# BIBLIA,

þad er

# Aull heilaug Ritning

útlaugd á Islendsku

og prentud

Epter þeirri Kaupmannahaufnsku Útgafu
MDCCXLVII

at forlagi

Þess Bretska og útlenda Felags
til útbreidslu Heilagrar Ritningar medal allra Þióda.



---

Kaupmannahaufn,
Are epter Burd vors Herra og endurlausnara Jesu Christi MDCCCXIII
af C. F. Schubart, prentara þess konongligs
Foreldralausu Barna Huss.

# Firsta Bok Moses.

## 1. Capitule.

I Upphafe skapade Gud himen og jørd.

2. Og jørdenn var eyde og tóm, og myrkur var yfer underdiúpenu, ogGuds ande færdest yfer vøtnenn.

3. Og Gud sagde, verde liós, og þar vard liós.

4. Og Gud sá, ad liósed var gott, Þá skilde Gud liósed fra mirkrunum.

5. Og kallade liósed, dag, enn mirkred, nótt: Þá vard af kvøllde og morgne sá fyrste dagur.

6. OgGud sagde, Þar verde ein festing á mille vatnanna, sem í sundur skal skilia vøtnenn hvør frá ødrum.

7. Þá gerde Gud eina festing, og skilde vøtnenn sem voru under festinguene. Og þad skede so.

8. Og Gud kallade festinguna himen; Þá vard af kvøllde og morgne sa annar dagur.

9. Og Gud sagde, safnest vøtnenn under himnenum í eirn stad, so ad siást mege þurt land. Og þad skede so.

10. Og Gud kallade Þurrlended jørd, og samanfafnan vatnanna kallade hann sió. Og Gud sá ad þad var gott.

11. Og Gud sagde, láte jørdenn af ser uppvaxa græn grøs og jurtér, hafande sæde í ser og avaxtarsøm tre, so ad hvørt bere avøxt epter sinne tegund, og hafe sitt eiged sæde í ser siálfu á jørdunne. Og þad skede so.

12. Og jørdenn frammleidde af ser græn grøs og jurter, hafande sæde, hvørt epter sinne tegund, og ávaxtarsøm tre, hafande sin eigenn sæde med siálfum ser, hvørt epter sinne tegund. Og Gud sá, ad þad var gott.

13. Þá vard af kvøllde og morgne sá Þride dagur.

14. Og Gud sagde, verde liós á festingu himensins, so þau skile dagenn fra nóttunne, og gefe teikn tíma, daga og ára.

15. Og lyse á festingarhimne, so þau upplyse jørdena, og þad skede so.

16. Og Gud gerde tvø stór liós, Þad stærra liósid ad stiórna deigenúm, og þad minna liósed ad stiórna nóttunne, þar ad auk stiørnur

17. Og Gud sette þær á festingar-himenenn, sò ad þær skyldu skína á jørdena.

18. Og stiórna deigenum og nóttunne, og ad sundurgreina liósed og myrkred. Og Gud sá, ad þad var gott.

19. Og þar vard af kvøllde og morgne sá fiórde dagur.

20. Og Gud sagde, vøtnenn frammleide af ser hrøranleg og lifande kvikende, og fugla sem fliúga skulu á jørdunne under himensins festingu.

21. Og Gud skapade stóra hvalfiska og allsháttud hrøranlig og lifande kvikinde, sem vøtnenn gáfu af ser, serhvørt epter sinne tegund, og allskins fiadrada fugla, serhvøria epter sinne tegund.

22. Og Gud sá ad þad var gott.
Og Gud blessade þá og sagde, auk-
est og margfalldest, og upfylled
vøtnenn siáfarins; og suglarner
margfalldest á jørdenne.
23. Þá vard af kvøllde og morg-
ne sá simmte dagur.
24. Og Gud sagde, jørdenn
frammleide lifande kvikende, ser-
hvørt epter sinne tegund, fenad,
skridkvikende, og skógdyr jardar,
hvørt epter sinne tegund. Og þad
skede so.
25. Og Gud skapade skógdyr
jardarennar, hvørt epter sinne
tegund, og so fenadenn epter sinne
tegund, og alskins skridkvikende
jardar, epter sinne tegund. Og
Gud sá ad þad var gott.
26. Og Gud sagde, ver vilium
gera mannenn, epter mind og lík-
ing vorre, hvør ed drottna skal
yfer siskum siáfarins, og yfer sugl-
um loptsins, og yfer fenadenum,
og yfer allre jørdunne, og yfer øll-
um skridkvikendum, sem hræraſt á
jørdunne.
27. Og Gud skapade mannenn,
epter sinne mind, epter Guds mind
skapade hann hann, og han skapa-
de þau karlmann og kvinnu.
28. Og Gud blessade þau, og
sagde til þeirra, aukest þid og
margfalldest, og uppfylled jørdena,
og gered hana ydur undergefna,
og drottned yfer fiskum siáfarins,
og yfer fuglum loptsins, og yfer
øllum dyrum, sem hræraſt á jørd-
unne.
29. Og Gud sagde, siáed, alls-
háttadar jurter sem gefa sæde af
ser á allre jørdunne, og allra handa
ávartarsøm tre, sem gefa sæde af
ser, gef eg ydur til fædslu.
30. Og øllum dyrum jardarenn-
ar, og øllum fuglum loptsins, og
øllum skridkvikendum, sem lifa á
jørdu, ad þau ete allskins grænar
jurter. Og þad skede so.
31. Og Gud sá alla hlute, þá sem
hann hafde gert, og siá, þeir voru
hardla góder. Og þar vard af
kvøllde og morgne sá siøtti dagr.

## 2. Capitule.

1. Þannen algerdest nú himen
og jørd, og allur þeirra her.
2. Og so fullkomnade Gud á
þeim siøunda deige sín verk, sem
hann gerde. Og hvíldest þann siø-
unda dag, af øllu sínu verke, sem
hann gerdt hafde.
3. Og hann blessade þann siøun-
da dag, og helgade hann, af því ad
hann hvíldest á þeim sama deige af
øllum sínum verkum, sem Gud
skapade og gerde.
4. Þannig vard nú himenenn og
jørdenn, þa þau voru skøpud, á
þeim tíma, þá Gud Drotten gerde
jørdena og himenenn.
5. Og allra handa tre á mørken-
ne sem eigi voru ádur fyrre á jørd-
unnne, og allra handa jurter á
akrenum sem eigi uxu ádur fyrre.
Þviad Drotten Gud hafde þa enn
eigi láted rigna á jørdena, og þar
var eingenn madur, sem jørdena
fágade med sínu erfide.
6. Enn þar geck upp ein Þoka af
jørdunne, og vøkvade alla jørdena.
7. Og Gud Drotten gerde man-
nenn af jardar leire, og bles einum
lifande anda í hans nafer, og so
vard madurenn ad lifande sálu.
8. Og Gud Drottenn plantade
einn alldingard í Eden, á móte au-
stre, og sette mannenn þángad,
hvørn hann hafde skapad.
9. Og Gud Drottenn let upp vaxa
af jørdunne allra handa tre, sem
føgur voru ad siá, og lysteleg ad eta,
og lífsins tre í midum alldengarde-
num, og þad skilnings tre góds og
ills.

10. Og þar rann ein mikel uppspretta út af Eden til ad vøkva alldingardenn, og sú uppspretta skiptest þadan í fiøgur stór vatnsføll.

11. Þad fyrsta heiter Pison, þad fellur um landed Hevila, og þar finnst gull.

12. Og gull þess lands er forkostulegt, og þar finnst Bedellium og gimsteinnenn Onyx.

13. Þad annad vatnsfalled heiter Gihon, þad fellur um allt mórland.

14 Hid þridia vatnsfalled heiter Hidekel, þad fellur framm hia Assyria. Þad fiórda vatnsfalled er Phrath.

15. Og Drottenn Gud tók mannenn, og sette hann í þann alldingard Eden, ad hann skyllde yrkia hann og vardveita.

16. Og Gud Drottenn baud mannenum og sagde, Þú skallt eta af allra handa triám í alldengardenum.

17. Enn af því skilnings tre góds og ílls skalltu eigi eta, Þvíad á hvørium deige, sem þú etur af því, þa skalltu dauda deya.

18. Og Drottenn Gud sagde; Þad er ei gott ad madurenn se einnsamann, eg vil gera hønum eina medhiálp, þa sem vera má hiá hønum.

19. Þviad þá Gud Drottenn hafde skapad af jørdunne allra handa dyr á mørkenne, og allskins fugla under himnenum, þa leidde hann þau til Adams, so hann sæe, hvad hann villde nefna þau, Þvíad hvad hellst nafn, sem madurenn gæfe øllum lifande kvikendum, þá skylldu þau so heita.

20. So gaf madurenn allra handa fenade, og fuglum loptsins, og so allra handa dyrum á jørdunne, serhvøru sitt nafn. Enn þar fannst eingen medhiálp fyrer mannenn, sem vera mætte hiá hønum.

21. Þá let Gud Drottenn fastann svefn falla yfer mannenn: og þá hann svaf, tók hann eitt af hans rifium, og byrgde aptur med hollde.

22. Og Gud Drottenn uppbyggde eina kvinnu af rifbeine því, sem hann tók af mannenum, og leidde hana til hans.

23. Þá sagde madurenn, Þetta er bein af mínum beinum, og holld af mínu hollde, þar fyrer skal hún karlinna kallast, af því hún er af karlmanne tekenn.

24. Og þess vegna skal madurenn yfergefa fødur sinn og módur sína, og hallda ser vid sína eigenn konu, og þau tvø skulu vera eitt holld.

25. Og þau voru bæde nakenn Adam og hans kvinna, og skømmudust sín eigi.

## 3. Capitule.

1. Og høggormurenn var slægare enn øll ønnur kvikende á jørdunne, sem Gud Drotten hafde skapad, og hann sagde til kvinnunnar, já, skylde Gud hafa sagt, Þid skulud eigi eta af allskins triám í alldengardenum?

2. Þá sagde konann til høggormsins; vid etum af ávexte triánna í alldingardenum.

3. Enn um ávøxt þess tres sem stendur í midium alldengardenum þá sagde Gud, eted eigi þar af, og komed eige vid þad, so ad þid kann ske deyed eigi.

4. Þá sagde høggormurenn til kvinnunnar, í engann máta munud þid dauda deya.

5. Helldur veit Gud þad, ad á hvørum deige sem þid eted þar af, þá munu ykkar augu opnast, og þid munud vera líka sem Gud, og vita skin góds og ílls.

6. Og kvinnann sá ad tred var

gott ad eta af, og fagurt ad siá, og eitt gyrnelegt tre til fródleiks. Og Hún tók af ávertenum og át, og gaf sínum manne þar af, og hann át.

7. Þá upplukust beggia þeirra augu, og formerktu þau, ad þau voru nakenn, og þau festu saman Fíkiuvidar blød, og gerdu ser af laufkyrtla.

8. Og þá er þau heyrdu Guds Drottins rødd, sem geck umkring í alldingardenum, þá dagurenn var ordenn svalur, þá falde Adam sig og hans kvinna fyrer auglite Guds Drottins, á mille triánna í alldingardinum.

9. Og Gud Drottinn kallade á Adam og sagde til hans, hvar ertu?

10. Hann svarade: eg heyrde þína rødd í alldingardenum, og eg hrædduns, þvi eg var nakenn, og af þvi falda eg mig.

11. Og hann sagde; hvør sagde þer, ad þú værer nakenn? hefur þú eigi eted af því tre, sem eg bannade þer eta af?

12. Þá svarede Adam; kvinnann sú sem þú gafst mer til samlags, hún gaf mer af trenu, og eg át.

13. Þá sagde Gud Drottenn til kvinnunnar; Því gerder þú þad? kvinnann svarade; høggormurenn sveik mig, so ad eg át.

14. Þá sagde Gud Drottenn til høggormsins: af því ad þú gerder þetta, þá vert þú bølvadur á medal allra kvikenda, og á medal allra dyra á jørdu; þú skallt gánga á þínum kvide, og eta molld jardar alla þína lífdaga.

15. Og eg vil setia Ovinskap á mille þín og kvinnunnar, og á mille þíns sædis og hennar sædis: Þad sama skal í sundur meria þitt høfud, og þú skallt bíta hann í hælenn

16. Og hann sagde til kvinnunnar; eg vil tilskicka þer miklar eymder, þegar þú verdur ólett, þá skalltu fæda þín børn med sótt, og þinn vili skal vera þínum manne undergefenn, og hann skal vera þinn herra

17. Og til Adams sagde hann; sokum þess þú hlydder rødd þu konu þinnar, og átst af þvi tre, af hvøriu eg baud þer, ad þú skyllder eigi eta af, þá skal jørdenn vera bølvud fyrer þína skulld: med mædu skalltu þig af henne næra alla þína lífdaga

18. Þyrna og Þistla skal hún bera þer, og þú skallt eta grøs jardarennar.

19. J þíns andlits sveita skalltu neyta þíns brauds, þángad til þú verdur ad jørdu aptur, af hvørre þú ert tekenn, Því ad þú ert jørd, og þú skallt ad jørdu aptur verda.

20. Og Adam nefnde sína kvinnu Heva; því ad hún er allra lifendra móder.

21. Og Gud Drottenn gerde Adam og hans kvinnu skinnkyrtla, og íklædde þau þeim.

22. Og Gud Drotten sagde; siáed, Adam er ordenn so sem einn af oss, og veit bæde gott og íllt. En uppá þad, hann eigi skal útretta sína hønd, og taka af þvi líssins tre, og eta og lifa eylíflega.

23. Þá let Gud Drottenn hann burt úr þeim alldengardeEden, so ad hann skyllde eria jørdena, af hvørre hann var tekenn.

24. Hann rak Adam burt, og sette Cherubim fyrer alldengardenn Eden, med eitt naked sveipande sverd, til ad geyma vegenn (sem liggur) til líssins tres.

## 4. Capitule.

1. Og Adam kennde sinnar kvinnu Evu, og hún vard ólett, og fædde Kain, og sagde; eg hefe ødlast þann mann, Drottenn.

2. Og hún vard ólett í annad

sinn, og fædde hans bródur Abel. Og Abel vard saudahirder, enn Kain vard einn akurmadur.

3. Og þad skede so epter stunder lidnar, ad Kain færde Drottnin fórner af ávoxtum jardar.

4. Abel bar og framm af frumburde sinnar hiardar, og af þeirra feite.

5. Og Drottenn leit nádarsamlega til Abels og til hans fórnar, enn til Kains og hans fórnar leit hann eigi nádarsamlega. Þa vard Kain afar-reidur, so ad hans yferbragd afmindadest.

6. Og Drottenn sagde til Kains, Því ertu so reidur? og hvar fyrer afmindast so þitt yferbragd?

7. Er eigi so? ef þú ert frómur þá ertu þacknæmur; enn sert þu eigi frómur, þá hvílest syndenn fyrer dyrum, enn lát þú hana eigi hafa sinn vilia, helldur drottna yfer henne.

8. Þá talede Kain vid brodur sinn Abel. Og þad skede so, þá þeir voru til samans á akrenum, ad Kain reis upp í móte sínum brodur Abel, og sló hann íhel.

9. Þa mællte Drottenn til Kain, hvar er þinn brodir Abel?

10. Hann svarade, eg veit eigi, eda á eg ad vakta minn brodur? og hann sagde, hvad hefur þú gert? roddenn þíns bródurs blóds hrópar til mín af jordunne.

11. Og bolvadur sertu nú á jordunne, sem upplauk sínum munne, og tók þíns bródurs blód af þinne hende.

12. Nær þú eriar jordena, þá skal hún eigi her epter gefa þer af sínum gróda; ráfande og landflotta skalltu vera á jordunne.

13. Þá sagde Kain til Drottins, mín synd er stærre, enn þad hún meige mer fyrergefast.

14. Siá, Þú útskúfar mer í dag af landenu, og eg hlyt ad fela mig fyrer þínu auglite, og vera so ráfande og landflótta madur á jordu, þá vill þad mín verda, at hvor mig finnur, hann mun slá mig íhel.

15. Enn Drottenn sagde til hans; Þad skal eigi ske, helldur hvor sem Kain íhel slær, þess skal hefnt verda siøfalldlega. Og Drottenn sette eitt einkenningarmark á Kain, ad eingenn skyllde slá hann íhel, hvor sem hann finnde.

16. So geck Kain út frá auglite Drottens, og bió í landenu Nod, fyrer austan Eden.

17. Og Kain kennde sinnar kvinnu, og hún vard ólett, og fædde Hanoch. Og hann uppbyggde eina borg, og kallade hana epter síns sonar nafne Hanoch.

18 Og Hanoch gat Jrad, Jrad gat Mahuiael, Mahuiael gat Matusael, Matusael gat Lamech.

19. Enn Lamech tók ser tvær eigennkonur, ein þeirra het Ada, enn onnur Zilla.

20. Og Ada fædde Jabal, af honum eru þeir komner sem bиggu í landtiølldum og voru fiárhirdarar.

21. Og hans bródir het Jubal, hann hóf fyrstur manna horpuslátt og organs leik.

22. Og Zilla vard ólett og fædde Tubalkain: hann var hagleiks madur í allra handa koparsmíde og járnsmíde. Tubulkains syster het Naema.

23. Og Lamech sagde til sinna kvenna Ada og Zilla; Þid Lamechs kvinnur heyred mín ord, og gefed gaum ad þvi eg seige: eg hefe íhelsleiged einn mann mer til áverka, og eitt ungmenne mer til bólgu.

24. Kains skal siøfinnum hefnt verda, enn Lamechs siøtígu og siøfinnum.

25. Og Adam kenndc sinnar kvinnu ad nyu, og hún fædde einn son, þann kallade hún Seth, Því Gud hefur (sagde hún) sed mig, og gefed mer nú annad fæde í stadenn Abels, sem Kain slo íhel.

26. Og Seth átte einn son; þann kallade hann Enos. Og á þeim tíma hófu menn ad predika út af nafne Drottins.

## 5. Capitule.

1. Þesse er kinkvíslabók manns sinns. Þá Gud skapade manninn, þá gerde hann hann epter Guds mind.

2. Og hann skapade þau karlmann og kvennmann, og blessade þau, og kallade þeirra nøfn mannesku, á þeim tíma þá þau voru skøpud.

3. Og Adam var hundrad og þriátigi ára gamall, og hann gat einn son epter mind og líking sinne, og kallade hann Seth.

4. Og han lifde upp frá því átta hundrud ár, og átte sonu og dætur.

5. So ad allur hans alldur var níu hundrud og þriátíge ára, og hann andadest.

6. Seth var hundrad og fimm ára gamall, þá hann gat Enos.

7. Og hann lifde upp frá því átta hundrud og siø ár, og átte sonu og dætur.

8 So hans allur alldur vard níu hundrud og tólf ár, og hann andadest.

9. Enos var níutíge ára gamall, og gat Kenan.

10. Og hann lifde upp frá því átta hundrud og fimmtan ár, og átte sonu og dætur,

11. So ad hans allur alldur vard níu hundrud og fimm ár, og hann andadest.

12. Kenan var siøtíge ára, og gat Mahalaleel.

13. Og hann lifde upp frá því átta hundrud og fiørutíge ára, og átte sonu og dætur,

14. So ad hans allur alldur vard níu hundrud og tíu ár, og hann andadest.

15. Mahalaleel var fimm og sextíge ára gamall, og gat Jared.

16. Og hann lifde upp frá því átta hundrud og þriátíge ára, og átte sonu og dætur,

17. So hans allur alldur vard átta hundrud fimm og níutíu ár, og hann andadest.

18. Jared var hundrad sextíge og tveggia ára gamall, og gat Enoch.

19. Og hann lifde upp frá því átta hundrud ár, og átte sonu og dætur.

20. So ad hans allur alldur vard níu hundrud sextíge og tvø ár, og hann andadest.

21. Enoch hafde fimm um sextugt, og gat Mathusalah.

22. Og epter þad hann hafde geted Mathusalah, lifde hann gudlegu líferne Þriu hundrud ár, og átte sonu og dætur.

23. Og hans allur alldur vard Þriú hundrud fimm og sextíge ár.

24. Og fyrer søkum þess, ad hann lifde so gudlegann lifnad, þa nam Gud hann burt, og hann vard eigi meir sedur.

25. Mathusalah var hundrad siø og áttatíge ára gamall, og gat Lamech.

26. Og hann lifde þadan í frá siø hundrud áttatíge og tvø ár, og átte sonu og dætur.

27 So ad hans allur alldur vard níu hundrud níu og sextíge ár, og hann andadest.

28. Lamech hafde hundrad tvø og áttatíge ára, og gat einn son, og nefnde hann Nóa, og sagde,

29. Þesse skal hugga oss í vorre armædu og erside á jørdunne, hvørre Drottenn bølvade.

30. Sídan þar epter lifde hann fimm hundrud níutíge og fimm ár, og átte sonu og dætur,

31. So ad hans allur alldur vard siø hundrud siøtíge og siø ár, og hann andadest.

32. Noe vard fimmhundrud ára gamall og gat Sem, Cham, og Japhet.

## 6. Capitule.

1. Enn þá er mennena tok adfiølga á jørdu, og þeir gátu dætur,

2. Þá sáu Guds børn mannanna dætur, ad þær voru frídar, og þeir gengu ad eiga hvøriar sem þeir villdu.

3. Þá sagde Drottenn; manneskiann vil eigi láta sig straffa framar meir af mínum anda, þviad hún er holld. Eg vil enn nu gefa þeim frest um hundrad ár og tutugu.

4. Á þeim tíma voru tyrannar á jørdu. Þvíad þá Guds børn løgdust med dætrum mannanna, og gátu børn med þeim, þa jukust þar af vollduger og nafnkunnuger menn á jørdunne.

5. Enn þá ed Drottenn sá þad, ad mannanna illska var mikel á jørdunne, og øll þeirra hiartans hugsan og ásetningur var ætíd til ílls eins hneigdur.

6. Þa idradest Gud, þad hann hafde mannenn skapad á jørdu, og þad ángrade hann í sínu hiarta, og hann sagde.

7. Eg vil afmá af jørdu þa manneskiu sem eg hefe skapad, bæde menn og fenad, skridkvikende og fugla loptsins, Þviad eg idrast ad eg skapade þad.

8. Enn Noe fann nád hia Drottne

9. Þesse er ættkvísl Noa. Noe var einn rettlátur og ostraffanlegur madur, og lifde gudrækelega í sinne tíd.

10. Hann gat þria sonu, Sem, Cham, Japheth.

11. Enn jørdenn var fordiørfud fyrer Guds auglite, og full ránglætis.

12. Þá leit Gud á iørdena: og siá þu, hún var fordiørfud, Þviad allt holld hafde fordiarfad sína vegu á iørdunne.

13. Þá mællte Gud vid Noa; ending alls hollds er komenn fyrer mer, þviad iørdener full ránglætis af þeim, siá þú, eg vil fordiarfa þá ásamt med jørdunne.

14. Ger þer eina ørk af grenevidar triám, og ger smá hús í henne, og bræd hana med biki utan og innan.

15. Og ger hana so; hún skal vera þriuhundrud álna á leingd; fimmtíge álna á breidd, og þriátíge álna á hæd.

16. Þú skallt og gera einn glugg ofan á ørkenne, einnrar álnar háfann. Dyrnar skalltu setia utan á hennar sídu. Og hún skal hafa þriú lopt, eitt nedst, annad í midiu, og þridia efst.

17. Þvíad siá þú: eg vil láta koma eitt flód vatna yfer jørdena, til ad deyda allt holld þad sem lífs anda hefir medur ser under himnenum: allt þad sem á jørdunne er, skal fyrerfarast.

18. Enn vid þig vil eg gera eitt sáttmál. Og þú skallt gánga í ørkena, ásamt med þínum sonum, þín kvinna og þínar sonar kvinnur.

19. Og þú skallt innláta í ørkena allra handa dyr, af øllu hollde, já, eitt par af hveriu, karlkins og kvennkins, ad þau hallde lífenu med þer,

20. Af fuglunum, epter þeirra

kine, af fenadenum epter hans kine, og af allshättudum skridkvikendum jardar, epter þeirra kine. Af þessu øllu skal eitt par fara inn til þín í ørkena, so þad meige hallda lífenu.

21. Og þú skallt taka allshättadar fædslur med þer sem etande eru, og safna þeim ínn til þín, so þad meige vera þer og þeim til atvinnu.

22. Og Noe gerde alla hlute so sem Gud baud hønum.

## 7. Capitule.

1. Og Drottenn sagde til Noa, gak ínn í ørkena, þu og allt þitt hús, þviad eg hefe sed þig rettlátann fyrer mer á þessum tíma.

2. Tak ínn til þín af allshättudum hreinum kvikendum, siø og siø, karlkins og kvennkins, enn af óhreinum kvikendum ei meira enn eitt par, karlkins, og kvennkins.

3 Líka so af fuglum loptsins siø og siø karlkins og kvennkins, so ad sæde blífe lifande á allre jørdu.

4. Þviad epter siø daga vil eg láta rigna á jørdena, í fiørutíge daga og fiørutíge nætur, og afmá af jørdunne allt þad sem nockra veru hefur, og eg hefe gert.

5. Og Noe gerde alla hlute, so sem Drottenn baud hønum.

6. Enn hann var sexhundrud ára gamall, þegar vatnsflóded kom yfer jørdena.

7. Og hann inn-geck í ørkena og hans syner, hans kvinna, og hans sonar kvinnur, fyrer vatnsflóded.

8. So og geingu ínn í ørkena til Noa af hreinum og óhreinum kvikendum.

9. Af fuglum og allshättudum skridkvikendum, sem voru á jørdu, pørum saman, eitt karlkins og kvennkins, epter þvi sem Gud Drottenn hafde boded hønum.

10. Og þa þeir siø dagar voru lidner, þá kom vatnsflóded yfer jørdena.

11. Þá Noe var sexhundrud ára gamall, á þeim seitianda deige í ødrum mánude, Þad er dagurenn, þegar uppspruttu aller uppsprettubrunnar hins miklá underdiups, og himnaraufarnar opnudust.

12. Og þar rignde á jørdena í fiørutíge daga, og fiørutíge nátta.

13. Rett á þeim sama deige geck Noe ínn í ørkena med sínum sonum Sem, Cham, Japhet, og med sínne kvinnu og sínum þremur sonarkvinnum.

14. Þar med allra handa dyr, hvørt epter sínu kine, og allra handa fenadur epter sínu kine, og allra handa skridkvikende sem skrída á jørdenne epter sínu kine, og allra handa fuglar epter þeirra kine, allt þad sem floged gat og vænge hafde,

15. Þetta geck allt ínn í ørkena til Noa, pørum saman af øllu hollde, í hvøriu ad lífs ande var.

16. Og þad var karlkins og kvennkins, af allskins hollde, og geingu þar ínn, so sem Gud hafde boded hønum. Og Drottenn let aptur epter hønum.

17. Og vatnsflóded kom yfer jørdena í fiørutíge daga, og vatned óx, og upplypte ørkenne, hátt yfer jørdena.

18. So møgnudust nu vøtnenn og geingu yfer allt á jørdunne, so ad ørkenn flaut á vatnenu.

19. Og vøtnenn geingu yfer alla jørdena, og urdu so mikel á jørdunne, ad øll stór fiøll under øllum himnenum voru í kafe.

20. Fimmtan álnum geck vatned hærra yfer fiøllenn þau sem í kafe voru.

21. Þa fyrerfórst allt holld, þad sem hrærdest á jørdunne af fuglum

og fenade, skogdyrum og af øllum skridkvikendum jardarennar, og aller menn.

22. Allt þad sem hafde lifande anda á jørdu, þad drapst.

23. Þannen vard afmáð allt þad sem á jørdunne var, bæde menn og fenadur, skridkvikende og fuglar loptsins, þad vard alltsaman afmád af jørdunne. Noe alleina vard epter, og þad, hvad í ørkenne var med hønum.

24. Og vatned stód yfer jørdunne í hundrad og fimmtíge daga.

## 8. Capitule.

1. Þa minntest Gud á Noa, og á øll dyr, og á øll þau kvikende, sem voru med hønum í ørkenne. Og vøtnenn minkudu.

2. Og uppsprettur underdiupanna luktust aptur; sømuleidis himnaraufarnar, og regnenu af himnum var hamlad.

3. Og vatned minkade á jørdunne meir og meir, og þverrade epter hundrad og fimmtíge daga.

4. A þeim seitianda deige þess siøunda mánadar nam ørkenn stadar á fiallenu Ararat.

5. Og vatned þverrade og minkade miøg, allt til hins tíunda mánadar. A fyrsta deige hins tíunda mánadar skaut upp þeim hæstu fialla tindum.

6. Fiørutíge døgum þar epter, lauk Noe upp glugganum á ørkenne sem hann hafde gert.

7. Og let eirn hrafn útfliúga, hann flo í sífellu aptur og framm, þar til ad vatned þornade af jørdunne.

8. Epter þad let hann eina dúfu útfliuga fra ser, til ad vita hvørt vatned minkade eigi á jørdunne.

9. Enn sem dufann fann eigi þad, ad hún mætte hvíla sinn fót uppá, kom hun til hans aptur í ørkena, þviad vatned var þa enn yfer allre jørdunne. So útrette hann sína hønd, og tók hana til sín inn í ørkena.

10. Þá beid hann enn í adra siø daga, og let aptur eina dúfu fliúga af ørkenne.

11. Og hún kom aptur til hans ad kvølldе. Og siá þú. Hún hafde í munne ser eitt afbroted oliu laufblad. Þá skilde Noe ad vatned var þverrad á jørdenne.

12. Enn hann beid þá enn adra siø daga, og let þa enn dúfuna útfliuga, hún kom eigi til hans aptur.

13. Þá Noe var sexhundrud ára gamall og eins árs betur, á þann fyrsta dag hins fyrsta mánadar burt þornade vatned á jørdunne. Þá tok Noe yferiáfred af ørkenne, og fá ad jørdenn var ordenn þurr.

14. So var jørdenn alldungis þur, á þeim siøunda og tuttugasta deige í þeim ødrum mánude.

15. Þá talade Gud vid Noa, og sagde.

16. Far þú út af ørkenne, þú og þín kvinna, þíner syner, og þínar sonar konur med þer.

17. Allshattud kvikende sem eru hiá þer, af øllu hollde, af fuglum og af allra handa skridkvikendum, sem hræraſt á jørdunne, skulu fara út med þer, og hræred ydur á jørdunne vered friossøm og margfalldest á jørdunne.

18. So geck Noe út med sínum sonum, og med sinne kvinnu, og med sínum sonarkonum.

19. So og allra handa dyr, og allra handa skridkvikende, allrahanda fuglar, og allt þad sem á jørdunne hræreſt, þad geck út af ørkenne, hvørt til sins líka.

20. Og Noe byggde Drottne eitt alltare, og tók af allshattudum

hreinum kvikendum, og af allra handa hreinum fuglum, og offrade brenne-offur á alltared.

21. Og Drottenn lyctade Þann Þocknanlega ilm. Og sagde í sínu hiarta. Eg vil eigi her epter bølva jørdunne fyrer mannsins skulld, Þviad Þanckar mannligs hiarta eru iller í fra ungdome. Og her epter vil eg eigi meir slá allt Þad sem lifer, so sem eg hefe nu gert.

22. Og so leinge sem jørdenn stendur, Þá skal eigi linna sád og kornskurd, frost og hita, sumar og vetur, dag og nótt.

## 9. Capitule.

1. Og Gud blessade Noa og hans sonu, og sagde til Þeirra; vered friosamer og margfalldest, og uppfylled jørdena.

2. Ydar ótte og ogn skal vera yfer øllum dyrum á jørdunne, og yfer øllum fuglum loptsins, og yfer øllu Þvi sem hrærest á jørdunne, og aller fiskar í siónum skulu vera gefner í ydar hendur.

3. Allt Þad sem hrærest og lifer Þad skal vera ydar matur, so sem grænar jurter hefe eg gefed ydur allt Þetta.

4. Alleinasta eted eigi Þad kiøt sem enn nu lifer í sïnu blóde.

5. Þvi eg vil hefna ydars lífs blóds, og eg vil hefna Þess á øllum dyrum. Og eg vil hefna mannsins lífs á hvørium manne, so sem á Þeim, sem er hans bróder.

6. Hvør sem útheller mannsins blóde, hans blód skal og so úthellast fyrer mannenn. Þvi Gud hefur skapad mannenn epter sinne mind.

7. Vered friosamer og margfalldest og hræred ydur á jørdunne, so ad Þer meiged verda marger á henne.

8. Og Gud sagde til Noa og til hans sona med hønum.

9. Siá, eg uppset einn sáttmála vid ydur, og vid ydart sæde epter ydur.

10. Og vid øll lifande dyr hiá ydur af fuglum, af fe, og af øllum dyrum á jørdenne hiá ydur, af øllu Þvi sem geck ut af ørkenne, hvad hellst dyr Þar eru á jørdunne.

11. Og eg uppset so minn sáttmála vid ydur, ad her epter skal eigi meir allt holld eydeleggiast af flóde vatna, og Þar skal eigi framar koma vatnsflód her epter, ad fordiarfa jørdena.

12. Og Gud sagde, Þetta er teikn Þess sáttmála, sem eg hefe sett á millum mín og ydar, og allra lifande dyra hiá ydur, her epter til æfinlegrar tídar.

13. Eg hefe sett minn boga í skyunum, hann skal vera eitt teikn, á Þeim sáttmála millum mín og jardarennar.

14. Og Þegar Þad sker, ad eg fære sky yfer jørdena, Þá skulu menn sia minn boga í skyunum.

15. Og Þa vil eg Þeinkia á minn sáttmála millum mín og ydar, og allra lifande dyra, í allsháttudu hollde, ad Þar skal ei koma eitt vatnsflód her epter, ad fordiarfa allt holld.

16. Þar fyrer skal minn boge vera í skyunum, so eg kunne sia á hann, og Þeinkia á Þann eylífa sáttmála á mille Guds og allra lifande dyra, í øllu hollde sem er á jørdunne.

17. Og Gud sagde Þad sama til Noa, Þetta skal vera teikned á Þeim sáttmála, sem eg hefe uppreist millum mín og alls hollds á jørdunne.

18. Þesser eru Noa syner sem geingu út af ørkenne, Sem, Cham, Japhet, enn Cham er Canaans fader.

19. Þesser eru Þeir Þrír syner Noa, af hvørium øll lønd byggdust.

20. Enn Noe tok til ad yrkia jørdena, og plantade víngarda.
21. Og sem hann drack af víne, vard hann druckenn, og lá nakenn í sinne tialldbúd.
22. Þá nú Cham Canaans fader sá síns føðurs leyndarlim, þa sagde hann þad bádum sínum brædrum, sem ute stodu.
23. Þa tóku þeir Sem og Japhet eitt klæde, og løgdu uppá sínar bádar herdar, og geingu á bak aptur, þar til, og huldu þeirra føðurs smán. Og þer sneru sínum andlitum þar fra, so ad þeir sæu eigi þeirra føðurs blygdan.
24. Enn sem Noa vaknade af sínu víne, og feck ad vita, hvad hans yngste sonur hafde gert hønum.
25. Þá sagde hann, bølvadur verde Canaan, hann skal vera Þræll allra Þræla medal sinna brædra.
26. Og sagde framar meir, lofadur verde Drottenn Sems Gud, og Canaan se hans Þræll.
27. Gud útbreide Japhet, og láte hann búa í Sems tialldbúdum, og Canaan skal vera hans Þræll.
28. Og Noe lifde epter vantsfloded, Þriu hundrud og fimmtíge ár.
29. Og hans allur alldur vard nyuhundrud og fimmtíu ár, og hann andadest.

## 10. Capitule.

1. Þetta er ættkvísl þeirra Noa sona, Sem, Cham, Japhet, og þeir gátu børn epter flóded.
2. Þesse eru Japhets børn, Gomer, Magog, Madai, Javan, Thubal, Mesech og Thiras.
3. Enn þesse eru Gomers børn, Ascenas, Riphath, og Thogorma.
4. Þesse eru Javans børn, Elisa, Tharsis, Kithim og Dodanim.
5. Af þessum eru allar heidinganna eyar útskiptar í þeirra løndum, hvør epter sínu túngumále, ætt og folke.
6. Þesse eru Chams børn, Chus, Mizraim, Put, og Canaan.
7. Þesse eru Chus børn, Seba, Hevila, Sabtha, Raema og Sabtecha. Og þesse eru Raema børn, Scheba og Dedam.
8. Enn Chús gat Nimrod, hann tók til ad verda einn mikelsháttar herra á jørdunne.
9. Og var einn volldugur veidemadur fyrer Drottne. Þar fyrer er þad máltæke uppkomed: hann er einn volldugur veidemadur fyrer Drottne so sem Nimrod.
10. Og Babel var upphaf hans ríkes, Erech, Acad og Calne í lande Sinear.
11. Af þvi lande er Assur sídan komenn, og hann upbyggde Ninive og Rehoboth, Jr og Calah.
12. Og þar til Ressen millum Ninive og Calah, þad er einn stór stadur.
13. Mizraim gat Ludim, Anamim, Leabim, Naphtuhim.
14. Pathrusim og Casluhim. Af þessum eru komner Philistim og Caphthorim.
15. Enn Canaan gat Zidon sinn fyrsta Son, og Heth.
16. Jebusi, Emori, Girgosi.
17. Hivi, Arki, Sini.
18. Arvadi, Zemari og Hamathi. Af þessum eru þær Cananita Ætter útbreiddar.
19. Og þeirra lands álfur taka fra Zidon, í gegnum Gerar, ínn til Gasa, þar til ad Menn koma til Soдома, Gomorra, Adama, Zeboim, og allt til Lasa.
20. Þesse eru Chams børn, í þeirra Ættum, Túngumálum, Løndum og Lýdum.
21. Enn Sem, Japheths hins

elldsta broder, gat og so børn, hann er allra barna fader af Eber.

22. Og þesser eru hans Syner, Elam, Assur, Arphachsad, Lud og Aram.

23. Syner Aram eru þesser, Uz, Hul, Gether, og Mas.

24. Arphachsad gat Salah, Salah gat Eber.

25. Eber gat tvo sonu, einn het Peleg, þviad verølldenn var skipt í hans tíd: hans broder het Jaketan.

26. Og Jaketan gat Almodad, Saleph, Hazarmavet, Jarah.

27. Hadoram, Usal, Dikela.

28. Obal, Abimael, Seba.

29. Ophir, Hevila og Jobab. Þesser aller eru Jaketans syner.

30. Og þeirra bygdarløg voru fra Mesa, þar til komed var til Sephar, til þess Fialls mót austre.

31. Þesser eru Sems syner, epter þeirra ætt, túngumálum, lande og Lydum.

32. Þesse er nu ættbringur Noa sona, í þeirra ættkvíslum og fólke. Af þeim eru Þióðernar utbreiddar á jørdena, epter vatnsflóded.

## 11. Capitule.

1. Enn verølldenn øll hafde eitt tal og tungumál.

2. Og sem þeir foru frá austre, fundu þeir þar eitt slettlende í Sinear lande, og biuggu þar.

3. Og hvør sagde til annars, komed; gerum oss tígulsteina, og brennum þa í ellde. Og þa tóku þeir tígulsteina fyrer murgriót, og Limstein fyrer kalk.

4. Og þeir søgdu; komed, ver vilium byggia oss einn stad og turn, hvørs toppur ad take upp í himenenn, og gerum oss so eitt nafn, því verda má, ad ver uttvísstrunst um øll lønd.

5. Þá fór Drottenn ofann, ad siá þann stad og turn sem mannanna syner uppbyggdu.

6. Og Drottenn saghde; siá, þetta er ein Þiod, og þeir hafa aller eitt túngumál, og þeir hafa uppbyriad ad gera soddann, og eigi munu þeir látá af ad gera allt þad, sem þeir hafa fyrer sig teked.

7. Komum, látum oss fara ofann og villa þeirra túngumál, so eingenn skile hvad annar seiger.

8. So sundurdreifde Drottenn þeim þadann í øll lønd, so ad þeir urdu af ad láta, ad byggia þann stad.

9. Því kallast hans nafn Babel, því Drottenn villte þar allra landa tungumál, og hann sundurdreifde þeim þadann til allra landa.

10. Þetta er Sems ættkvísl. Sem var hundrad ára gamall, og átte Arphachsad, tveimur árum epter flóded.

11. Og hann lifde sídann fimmhundrud ára, og gat sonu og dætur

12. Enn Arphachsad var fimmtan og tuttugu ára gamall, og gat Salah.

13. Og hann lifde sídann fiøgur hundrud og þriu ár, og gat sonu og dætur.

14. Salah var þriatíge ára gamall, þa gat hann Eber.

15 Og hann lifde sídann fiøgur hundrud og þriu ár, og gat sonu og dætur.

16. Eber var fiortan og tuttugu ára gamall, og gat Peleg.

17. Og hann lifde sídann fiøgur hundrud og þriátíge ár, og gat sonu og dætur.

18. Peleg vard þrítugur ad alldre, og gat Regu.

19. Og lifde sídann tvø hundrud og níu ár, og gat sonu og dætur.

20. Regu var tolf og tuttugu ára gamall, og gat Serug.

21. Og lifde sídann tvø hundrud og siø ár, og gat sonu og dætur.
22. Serug var þrítugur ad alldre, og gat Nahor.
23. Og lifde þar epter tvø hundrud ára, og gat sonu og dætur.
24. Nahor var níu og tuttugu ára gamall, og gat Tharah
25. Og lifde sídann hundrad og nítian ár, og gat sonu og dætur.
26. Tharah var siøtugur ad alldre, og gat Abram, Nahor og Haran.
27. Þesse er Tharah Ættkvísl, Tharah gat Abram, Nahor og Haran. Enn Haran gat Loth.
28. Enn Haran andadest fyrre enn fader hans Tharah í sínu fødurlande, í þeim stad Ur í Chaldea lande.
29. Enn Abram og Nahor kvongudust. Abrahams hustru het Sarai. Enn Nahors kvinna het Milca, Harans dotter, sem var fader þeirra Milca og Jisca.
30. Enn Sarai var óbyria, og gat eingenn børn.
31. Þa tók Tharah sinn son Abram og Loth sinn sonar son, Harans son, og Sarai sína sonarkonu Abrams kvinnu, og útleidde þaufra Ur í Egaldea, ad hann fære í landed Canaan. Og þeir komu til Haran, og biuggu þar.
32. Og Tharah vard tvø hundrud og fimm ára gamall, og andadest í Haran.

## 12. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Abrams; gack út af þínu fóstur lande, og fra þínu frændlide, og ut af þíns føđurs huse, til þess lands sem eg mun vísa þer.
2. Og eg vil gera þig ad mikelle Þiód, og blessa þig, og gera þer eitt stórt nafn, og þú skallt vera ein blessan.
3. Eg vil blessa þá sem þig blessa, og so bølva þeim, sem þer bølva. Og í þer skulu blessast allar Ættkvísler á jørdunne.
4. So ferdadest Abram burt, so sem Drottenn hafde sagt hønum, og Loth fór med hønum. Abram var siøtíge og fimm ára gamall, þá hann for ur Haran.
5. So tók þa Abram sína hustru Sarai, og Loth sinn brodur-son, og alla þeirra fiárhlute, sem þeir hafde aflast, og so þær sáler, sem þeir høfdu geted í Haran, og foru út ad reisa í landed Canaan.
6. Og sem þeir voru komner í þad sama land, for Abram (þar) ígegnum, allt til þess stadar Sichem. Og til Lundsins More. Enn Canaanei biuggu í þann tíma í landenu.
7. Þa byrtest Drottenn Abram, og sagde. Þínu sæde vil eg gefa þetta land. Og hann byggde Drottne eitt alltare í þeim stad, sem hann opinberadest hønum.
8. Epter þad tók hann sig upp þadan til eins fialls, sem lá fyrer austan stadenn Bethel, og reiste þar upp sitt landtialld, og hafde Bethel á vestre sídu, enn Ai á eystre. Og hann byggde Drottne þar eitt alltare, og predikade um Drottins nafn.
9. Þar epter veik Abram framm leingra, og for í sudur átt.
10. Og þar vard miked hallære í landenu. Þa ferdadist Abram ofann til Egypta lands, ad hann villde hallda sig þar sem einnframande madur, þviad míøg miked hallære var í landenu.
11. Og sem hann var komenn hardt nær í Egyptaland, þa sagde hann til sinnar kvinnu Sarai, siá þú, eg veit ad þú ert hardla fríd kona Alits.
12. Og þegar þeir Egyptsku siá þig, þa munu þeir seigia; þad er

hans eigennkona, so munu þeir slá mig ſhel, enn hallda þer epter.

13. Þuí bid eg þig, ad þú seiger, ad þú sert syster mín, uppa þad mer meige þessbetur ganga þinna vegna, og ad mín sál meige halldast vid lífed fyrer þína skulld.

14. Enn sem Abram kom í Egyptaland, þa sáu þeir Egyptsku menn kvinnuna, ad hún var hardlá væn.

15. Og Pharaonis høfdingiar sáu hana, og hælldu fyrer honum. Þá var hun høfd í Pharaonis hus.

16. Og hann gerde Abram til góda fyrer hennar skulld. Og hann átte Saude, Naut, Asna, Þræla og Ambátter, Ósnur og Ulfallda.

17. Enn Drottenn plágade Pharaonem med mikellre plágu, og hans hús, vegna Sarai Abrams kvinnu.

18. Þá kallade Pharao Abram til sín, og sagde til hans, þvi hefur þú gert mer soddan?

19. Þvi sagder þú mer eigi, ad hun være þín eigenn kona? þvi sagder þu þá ad hun være þín syster? hvørs vegna eg villde hafa teked hana mer til eigennkvinnu. Sá, þar hefur þu þína eigennkvinnu, tak hana og far í burt.

20. Og Pharao baud sínu folke, ad þad skyllde fylgia honum á veg, og hans kvinnu, og øllu þvi sem hønum tilheyrde.

## 13. Capitule.

1. So fór Abram af Egyptalande, med sinne kvinnu, og med øllu þvi hann hafde, í sudur=átt, og Loth var med hønum.

2. Og Abram var stór=audugur, ad kvikfe, so og líka af Silfre og Gulle.

3. Og hann for jafnann áframm fra sudre ad Bethel, til þess stadar, sem hans tialldbud var fyrr, í mille Bethel og Ali.

4. Í þeim sama stad sem hann hafde ádur gert alltared, og hann predikade þar um nafn Drottins.

5. Enn Loth, sem fór med Abram, hann hafde bæde saude og naut, og so tialldbuder.

6. Og landed var þraungt fyrer þa báda ad búa samann, þvi þeir høfdu fiølda kvikfiár, so þeir máttu eigi vera í sambyle.

7. Og þar vard ósamþycke í millum fiárhirda Abrams, og í millum fiárhirdara Loths. Í þann tíma biuggu Cananei, og so Pheresei í þvi lande.

8. Þá mællte Abram vid Loth, kære, látum eigi vera nockra Þrætu millum þín og mín, og eigi helldur í millum minna og þinna fiárhirdara, þvi vid erum brædur.

9. Stendur eige allt landed oped fyrer þer? þar fyrer skil þig vid mig, viler þú víkia til vinstre handar, þa skal eg fara til hægre, eda viler þú fara til hægre handar, þa skal eg víkia til vinstre.

10. Þa upphóf Loth sín augu og leit landsáfu alla hiá Jordan, þvi ádur enn Drottenn umturnade Sodoma og Gomorra, þá hafde hún noglegann vatns vøkva, allt ad Zoar, líka sem alldingardur Drottins, líka sem Egypta land.

11. Þa kere Loth ser allt þad herad, sem lá hiá Jordan, og fór burt til austurs. So skildust þesser brædur ad, hvør fra ødrum.

12. Abram bió í Canaan lande, enn Loth í stødum þess sama herads, og sette sína tialldbúd allt til Sodoma.

13. Enn folked í Sodoma var illt og syndgad miøg í móte Drotten.

14. Og sem Loth var nú skilenn vid Abram, þa mællte Drottinn vid Abram; upplyptu þínum augum, og lít þú frá þessum stad. sem þu

byr, til Nordurs, Sudurs, Austurs, og Vesturs.

15. Þviad allt þad land, sem þú ser, vil eg gefa þer og þínu sæde æfinlega.

16. Og eg vil gera þitt sád sem dupt á jørdu: getur nockur talid dupt jardarennar, sá skal telia þitt sád.

17. Þar fyrer tak þig upp, og far í gegnum landed, bæde á leingd þess og breidd, þvi eg vil gefa þer þad.

18. So tók Abram sína tialldbúd upp, kom og bió í lundenum Mamre, hvor ed liggur í Hebron, og byggde Drottne þar eitt alltare.

## 14. Capitule.

1. Og þad skede á døgum Amraphel kongs af Sinear, og Arioch kongs í Ellassar, og Kedorlaomor kongs í Elam, og Thideal, som var heidingianna kongur.

2. Ad þeir børdust í mot Bera kongenum af Sodóma, og mót Birsa, kongenum af Gomorra, og í mót Sineab, kongenum af Adama, og mót Semeber kongenum af Zeboim, og í mót kongenum af Bela, sem kallast Zoar.

3. Þesser mættust aller í Dalnum Siddim, sem nú er sá sallte Siðreun.

4. Þvi þeir høfdu vered lydskilldet í tolf ár under kongenum Kedorlaomor, en fellu frá hønum á þvi þrettanda áre.

5. Þar fyrer kom Kedorlaomor og þeir kongar sem voru med hønnum, á þvi fiortganda áre, og slóu þa Risa sem voru í Astaroth, Karnaim, og Susim, í Ham og Emim, á þvi Sletlende Kiriathaim.

6. Þeir slóu og so Horeos, á þeirra fialle Seir, allt til þess vídlendis Pharan, sem liggur til Eyde merkur.

7. Epter þad snerußeir ser aptur, og komu til þeirrar uppsprettu Mispat, þad er Kades, og slóo allt land þeirra Amalekitarum, Amoreorum, sem biuggu í Hazezon Thamar.

8. Þá reiste kongurenn af Sodoma ut, kongurenn af Gomorra, kongurenn af Adama, Kongurenn af Zeboim, og kongurenn af Bela, sem kallast Zoar, og biuggust til bardaga í dalnum Siddim.

9. A móte Kedorlaomor kongenum af Elam, og í mót Thideal heidingia konge, og í móte Amraphel kongenum af Sinear, og í mót Arioch kongenum af Ellassar, fiórer kongar á móte fimm.

10. Og þar voru margar leirgrafer í þessum dal Siddim. Enn kongurenn af Sodoma og Gomorra urdu þar slegner á flotta og vid velle lagder, enn þeir sem epter voru fludu til fialla.

11. So tóku þeir alla þá fiárhlute sem voru í Sodoma og Gomorra, og allt þad sem ætt var, og drogu þar fra.

12. Þeir tóku og so líka Loth Abrams brodur son, og hans allann fiárhlut, þviad hann bió í Sodoma, og so drogu þeir þar fra.

13. Þá kom einn sem í burt hafde komest, og sagde þad Abraim utlendska, þeim sem þa bió í lundenum Mamre Amorhei, sem var broder þeirra Eskols og Aners, þesser voru sátmáls bundner vid Abram.

14. Og sem Abram heyrde, þad hans broder var hertekenn, vopnade hann þriú hundrud og átian sína huskarla, sem fædder voru í hans húse, og hann fór epter þeim allt til Dan.

15. Þar skipte hann sínum lidsmøunum, og fell á náttarþele yfer sína ovine, og fellde þá, og rak slót-

tann allt til Hoba, hvør ed liggur á vinstre sídu fra stadnum Damasco.

16. Og hafde aptur med ser alla fiárhlute, og so Loth siinn brodur, og allann hans fiárhlut, so og kvinnur og folked.

17. Enn sem hann kom aptur fra þessu slage, sem hann hafde veitt kongenum Kedorlaomor, og þeim ødrum kongum, sem med hønum voru, þa geck kongurenn af Sodoma út í mote hønum, á þann vøll, sem kallast konga dalur.

18. Enn Melchisedech, kongurenn af Salem, bar framm braud og vín, og hann var kennemadur hins hæsta Guds.

19. Og blessade hann, og sagde, blessadur vertu Abram fyrer þeim allra hæsta Gude, sem ad styrer himne og jørdu.

20. Og lofadur se sá allra-hæsti Gud, sem gaf þína ovine í þínar hendur. Og Abram gaf hønum tíunder af øllum hlutum.

21. Pa sagde konungurenn af Sodoma til Abrams, gef mer mennena, enn haf þu fiárhlute alla.

22. Abram svarade Sodoma konge, eg upphef mínar hendur til Drottins þess allra hæsta Guds, sem stiórnar bæde himne og jørdu.

23. Ad eg vil eigi taka so miked sem einn þrád, eda skóþveing, af øllu þvi gotse sem þer tilheyrer, so þu skallt eigi seigia, ad þú hafer gert Abram ríkann.

24. Utann þad sem þeir ungu menn hafa neytt, og þeir Menn, Aner, Eskol og Mamre, þeir sem reistu medur mer, þá láttu taka sitt hlutskipte.

## 15. Capitule.

1. Epter þessa atburde, bar so til, ad ord Drottins skede til Abram, í einne syn, og sagde; óttast þu eigi Abram, eg er þiun skiølldur, og þín miøg stór laun.

2. Enn Abram svarade: Drottinn, Drottinn, hvad villt þú gefa mer? eg fer hedan barnlaus, og minn verkstiore hefur einn son, þesse Eleeser af Damasco.

3. Og Abram sagde framar meir, mer hefur þu eckert sæde gefed, og siá þu, ad sonur míns Þenara, skal vera minn erfinge.

4. Og siá þú: Drottinn sagde til hans; eigi skal hann vera þiun erfinge, helldur sa sem kemur af þínu lífe, sa sami skal vera þinn erfinge.

5. Og hann baud hønum ad ganga út, og sagde, líttu upp til himens og til stiarnanna, kanntu ad telia þær? og hann sagde til hans; so skal þitt sæde verda.

6. Abram trúde Drottne, og þad reiknade hann hønum til rettlætis.

7. Og hann sagde til hans; eg er Drottinn, sem utleidde þig fra Ur í Chaldea lande, ad eg giæfe þer þetta land til Eignar.

8. Pa sagde Abram; Drottinn! Drottinn! hvada merke skal eg hafa til þess, ad eg skule þad eignast?

9. Og hann sagde til hans, tak mer eina kú þrevetra, og eina geit þrevetra, og einn hrut þrevetrann, og eina turtildúfu, og eina unga dúfu.

10. Og hann bar allt þetta framm fyrer hann, og sundurskiste þvi midt í tvo hlúte, og lagde Partana hvørn gegnt ødrum, enn fuglønum skipte hann eigi.

11. Og fuglar settust á hræenn, enn Abram rak þá í burtu.

12. Sem Solenn var nu undergeingenn, fell þungur svefn-høfge yfer Abram. Og siá þu, ad ótta miklum og myrkre sló yfer hann.

13. Pa sagde hann til Abrams; þad skalltu vita, ad þitt sæde skal

verda framande á einu lande, sem ad eigi heyrer þeim til, og þar munu menn þiá þad med Þrældome, og plága þad í fiøgur hundrud ára.

14. Enn eg vil dæma þad folk, sem þeir verda ad þióna. Þar epter skulu þeir fara á burt þadann med miklum audæfum.

15. Enn þú skallt fara med fride til þinna forfedra, og verda greftradur í godre elle.

16. Enn þeir skulu koma her aptur ad lidnum fiorum mannsølldrum, þviad ránglæte Amoritarum er enn eigi fullkomnad.

17. Sem sólenn var nu undergengenn, og mirkt var orded, siá þu, þa rankt einn ofn, og einn ellds loge leid framm á medal styckianna.

18. A þeim dege gerde Drottinn eirn sáttmála vid Abram, og sagde, Þínu sæde vil eg gefa þetta land, frá vatnsfallenu í Egyptalande, allt til þess stora vatnsfalls Phrat.

19. Þa Kenita og Kinisita, Kadmonita.

20. Hethita, Pheresita, og Risana.

21. Amorita, Cananita, Gergesita, Jebusita.

## 16. Capitule.

1. Sarai Abrams kvinna átte eckert barn, enn hún hafde eina Egyptska ambátt, sú het Agar.

2. Og Sarai sagde til Abram, siá þú, Drottenn hefur tillukt mig, so eg má eige børn fæda, legg hiá þer ambát mína, so eg meige, ef ske mætte, uppbyggiast af henne. Abram hlydde raust Sarai.

3. So tok Sarai Abrams kvinna þa Egyptsku ambátt Agar, og gaf hana sínum manne Abram til kvinnu, þá þau høfdu búed tíu ár í Canaans lande.

4. Og hann geck ínn til Agar, og hun vard ólett. Sem hun nu sá ad hun var ólett, virdte hun lítils sína husfrú hiá ser.

5. Þá sagde Sarai til Abram, þu gerer mer órett, eg lagda mína ambát hiá þer, enn nu hun hefir getnad fenged, hlyt eg ad vera fyrerlytenn hiá henne. Dæme Gud í millum þín og mín.

6. Þá sagde Abram til Sarai, siá þu, þín ambát er under þínu vallde, ger vid hana slíkt þú villt. Og sem Sarai villde þiá hana, þá flyde Agar burt frá henne.

7. En engell Drottins fann hana hiá einum brunne, i eydemørkenne, sem ad liggur hiá þeirre uppsprettu, sem er á vegenum til Sur.

8. Hann sagde til hennar, Agar Sarai Ambátt, hvadann kemur þu? og hvørt villtu fara? hun sagde: eg flyde fra minne husfru Sarai.

9. Og engell Drottins sagde til hennar, far heim aptur til þinnar husfrur, og audmyk þu þig under hennar hende.

10. Og engell Drottins sagde til hennar, eg vil margfallda þitt sæde, so þad skal eingenn kunna ad telia fyrer fiølda saker.

11. Og engell Drottins sagde framar meir til hennar, siá, þu ert ólett ordenn, og þú munt son fæda, hans nafn skallt þu kalla Ismael, þvi Drottinn hefur heyrt þinn mótgang.

12. Hann mun vera einn grimmur madur, og hans hønd skal vera móte hvørium manne, og hvørs hønd í móte hønum, og hann mun búa gagnvart øllum síuum brædrum.

13. Og hun kallade Drottins nafn, sem talade vid hana; Þu Gud ser mig: þvi hun sagde; sannarlega hef eg sed þann her, sem mig ser her epter.

14. Þvi kallade hun þann brunn, brunn þess lifanda og mig siáanda, hvør brunnur ad liggur á millum Kades og Bared.

15. Og Agar fædde Abram einn son, og Abram kallade þan son, sem Agar fædde hønum, Ismael.

16. Og Abram hafde sex um átt-rædt, þá Agar fædde hønum Ismael.

## 17 Capitule.

1. Þá Abram var níu og níutíger ara gamall, byrtest Drottinn hønum og sagde til hans, eg er allmáttugur Gud, gack fyrer mer, og vertu algerdur.

2. Eg vil gera minn sáttmála í millum mín og þín, og eg vil margfallda þig hardla miøg.

3. Þá fell Abram framm á sitt andlit. Og Gud talade framar-meir vid hann, og sagde.

4. Siá þu, eg em, og eg hefe bunded mitt sáttmál vid þig.

5. Og þu skallt verda margra þióda fader. Þar fyrer skalltu eigi leingur heita Abram, helldur skal þitt nafn kallast Abraham, þvi eg hefe gert þig ad fødur margra Þióda.

6. Og eg vil gera þig miøg margfalldann, og eg vil láta koma fiølda folks af þer, þar skulu og eirnenn kongar koma af þer.

7. Og eg vil uppreisa minn sáttmála í millum mín og þín, og þíns sædis epter þig, hiá þeirra epterkomendum, so þad se einn eylífur sáttmále, ad eg se þinn Gud, og þíns sædis, epter þig.

8. Og eg vil gefa þer og þínu sæde epter þig, þad land, í hvøriu þu ert framande, sem er þad allt landed Canaan, til eirnrar eylífrar eignar, og eg vil vera þeirra Gud.

9. Og Gud sagde til Abrahams, so hallt nu mitt sáttmál, þu og þitt sæde epter þig, þiá þeirra epterkomendum.

10. Þetta er mitt sáttmál, sem þer skulud hallda, mille mín og ydar, og þíns sædis epter þig. Allt karlkins, sem er á medal ydar, skal umskerast.

11. Og þer skulud umskera yferhud ydars holldś. Þad skal vera sáttmáls teikn, á millum mín og ydar.

12. Þer skulud umskera hvørt sveinbarn, þá þad er átta daga gamallt hiá ydar epterkomendum, líka og eirnenn hvørn heimafæddann heimelis mann, eda tilkeyptann, af hvørskins utlendingum, sem eigi eru af ydar sæde.

13. So skal minn sáttmále vera á ydar hollde til eins eylífs sáttmála.

14. Og hvørt þad sveinbarn, sem eigi er umskored á yferhud síns holldś, þess sál skal afmást fra hans folke, þviad hann forlet min sáttmála.

15. Og Gud sagde í annad sinn til Abrahams, þína kvinnu Sarai skalltu eigi hedann af kalla Sarai, helldur skal hennar nafn vera Sara. Þvi eg vil blessa hana, og af henne vil eg gefa þer einn son.

16. Þvi eg vil blessa hana, og þar skulu koma þioder af henne, og so konungar margra þioda.

17. Þá fell Abraham framm á sitt andlit, og broste, seigiande í sínu hiarta: skal eg eiga barn hundrad ára gamall? og skal Sara nírædd barn fæda?

18. Og Abram sagde til Guds, eg villde Ismael mætte lifa fyrer þer.

19. Þá sagde Gud, ad vísu, Sara þín kvinna skal fæda þer eirn son, þann skalltu kalla Isaac, þvid vid hann vil eg uppreisa minn eylífann sáttmála, og vid hans sæde epter hann.

20. Þar ad auk hefe eg og bænheyrt þig um Ismael, siá þu, eg hefe blessad hann, og eg vil auka hann, og gera hann miøg margfalldann. Hann mun geta tolf høfdingia, og eg vil gera hann ad einnre mikillre Þiod.

21. Enn minn sáttmála vil eg uppreisa vid Isaac, hvørn Sara skal fæda þer, í þetta mund á ødru árí.

22. Og hann let af ad tala vid hann, og Gud fór upp frá Abraham.

23. Þa tok Abraham sinn son Ismael, og alla þa Þenara sem fædder voru í hans huse, og alla þa sem til voru keypter, og alla adra sem voru karlkins í hans huse, og umskar yferhud á þeirra hollde, á þeim enum sama deige sem Gud hafde sagt hønum.

24. Og Abraham var níu og níutiger ára gamall þá hann umskar yferhudena á sínu hollde.

25. Enn Ismael hans son var þrettan ára gamall þá hans hollds yferhúd var umskorenn.

26. A einum deige voru þeir aller umskorner, Abraham, hans son Ismael.

27. Og allt karlkins, sem var í hans húse, heimafædder og af annarlegum keypter, þeir voru aller umskorner med hønum.

## 18. Capitule.

1. Og Drottinn byrtist hønum í þeim lund Mamre, þá hann sat í sínum tialldbudardyrum, og dagurenn var sem heitastur.

2 Og er hann upplypte sínum augum, Þa stodu þrír menn gagnvart hønum. Og sem hann leit þa, rann hann í mót þeim ur sínum tialdbudardyrum, og fell framm til iardar.

3. Og sagde, herra, hafe eg funded nád fyrer þínu auglite, þa gack eigi framm hiá þínum Þenara.

4. Ydur skal sækia líted vatn ad þvo ydar fætur, og hvíled ydur under trenu.

5. Eg vil bera ydur munnbita brauds, so þer meiged styrkia ydart hiarta: sídann fared ydar leid, þvi þar fyrer erud þer komner hingad til ydvars Þenara. Þeir svørudu, ger sem þu mællter.

6. Abraham flytte ser inn í tialldbudena til Sara, og sagde, flyt þer og ger til deigs þria mæle hveitemels, hnoda og baka køkur

7. Og hann hliop til nautanna og sokte einn godann feitann kálf, og feck þenaranum. Hann flytte ser og tilreidde hann.

8. Og hann bar framm smiør og miolk, og af þeim kálfe, sem hann hafde tilreidt, og sette þad framm fyrer þá, og hann stód hiá þeim under trenu, og þeir neyttu.

9. Þá søgdu þeir til hans, hvar er þín kvinna Sara? hann svarade, hun er þar ínne í tialdbudinne.

10. Þa sagde hann, eg vil koma til þín aptur, ad mer lifanda, siá þu, þa skal Sara þín kvinna hafa eirn son. Þetta heyrde Sara til baka vid hann, á bak vid tialldbudar dyrnar.

11. Og Abraham og Sara voru bæde gømul, og hnygenn á efra alldur, so ad kvennleger edlis hætter voru horfner fra Sara.

12. Þar fyrer broste hún med ser sialfre, og sagde, skal eg nu stunda epter lysting, þar sem eg er gømul ordenn, og minn herra hnygenn ad alldre?

13. Þá sagde Drottinn til Abrahams, þvi hlær Sara þar ad og seiger, mun þad satt, ad eg skule barn fæda so gømul?

14. Skyllde nockur hlutur vera Drottne ómøgulegur? eg vil koma til þín á þessum tíma, ad mer lifanda, og skal Sara hafa einn son.

15. Þá þrætte Sara og sagde, eg hló eigi, því hun var hrædd. Enn hann sagde, þad er eigi so, þú hlóst.

16 Þá stódu mennerner upp þadann, og sneru ser til Sodoma. Og Abraham geck á leid med þeim, til ad fylgia þeim.

17. Þá sagde Drottinn, hvørnenn má eg dylia fyrer Abraham því sem eg vil gera?

18. Med því hann skal verda ad einu miklu og megtugu folke, og allar þióder á jørdunne skulu blessast í hønum.

19. Því ad eg veit, ad hann mun bioda sínum børnum og sínu húse epter sig, ad vardveita vegu Drottins, og gera þad sem rett og godt er, so ad Drottinn láte þad koma yfer Abraham, sem hann hefir heited hønum.

20. Og Drottinn sagde, þar er eitt hróp í Sodoma og Gomorra, þad er miked, og þeirra synder eru miøg þungar.

21. Þar fyrer vil eg fara ofann, og vita, hvørt þeir hafa gert allt epter því hrópe, sem komed er fyrer mig, eda se þad eigi, so ad eg meige þad vita

22. Og mennerner sneru sínu auglite þar frá, og geingu til Sodoma.

23. Enn Abraham var standande fyrer Drottne, og geck framm fyrer hann, og sagde, villtu lífláta þann rettláta med þeim ógudlega?

24. Má vera þar finnest fimmtíger rettláter í stadnum, villtu þá lífláta þá og þirma eigi þeim stad, fyrer søkum þeirra fimmtíger rettlátra manna, ef þeir være þar?

25. Fiarlægt se þer þad, ad þu skuler þad gera, ad drepa þann rettláta med þeim ógudlegu, ad sá hinn rettláte verde líkur þeim ógudlega, þad se langt frá þer, þú sem ert allrar veralldarennar dómare, eigi muntu so dæma.

26. Þá sagde Drottinn, ef eg finn fimmtíge rettlátra manna í þeim stad Sodoma, þá vil eg fyrer þeirra skulld fyrergefa øllu því plátse.

27. Abraham svarade og sagde, ach siá, eg hefe um sinn uppbyriad ad tala vid Drottinn, þar sem eg er þo dupt og aska.

28. Ske má, þar seu fimm midur enn fimmtíge rettlátra, villder þú þá afmá allann stadenn, vegna þeirra fimm? hann sagde, ef eg finn þar fimm og fiørutígu, þá mun eg eigi afmá þá.

29. Og hann talade framar meir vid hann, og sagde, kann ske þar meige finnast fiorutíger ínne. Enn hann svarade, eg vil eckert gera þeim vegna þeirra fiørutígu.

30. Þá sagde Abraham, reidst mer eigi Drottenn, þo eg tale enn meira, má ske þar finnest þriatíu ínne? hann svarade, ef eg finn þar þriatíu, þá vil eg eckert gera þeim. Og hann sagde.

31. Ach, siá, eg hefe teked mer fyrer heudur ad tala vid Drottinn. Enn ef þar ínne finnast kannske tuttugu. Hann svarade, eg vil ei forderfa þá vegna þeirra tuttugu. Og hann sagde.

32. Æ Drottinn, reidst eigi þo eg tale enn alleina eitt sinn: enn ef þar finnast tíu. Og hann svarade, eg vil eigi afmá þá vegna þeirra tíu.

33. Og Drottenn geck í burt epter þessar vidrædur vid Abraham. Og Abraham fór aptur til síns stadar.

## 19. Capitule.

1. Ad aptne komu þeir tveir englar til Sodoma, enn Loth sat í Sodome borgar hlide. Og er hann leit þá, þá stód hann upp í mote þeim, og hneigde sig med sínu andlite til jardar.

2. Og sagde, siáed herra, komed nu inn med mer í hús ydvars þenara, og vered her í nótt, og láted þvo ydar fætur, so meiged þer vera arla uppe á morgun, og ferdast ydkarn veg. Þeir sögdu, nei, helldur vilium vid vera ute á strætum í nótt.

3. Þá neydde hann þá miøg þar til, so þeir geingu inn med hønum, og komu í hans hus. Og hann gerde þeim eina máltíd, og bakade ósýrdar kokur, og þeir neyttu.

4. Enn fyrr enn þeir fære í sængur, þá komu borgarmenn Sodoma stadar, unger og gamler, allur lydur af øllum áttum, og slóu hring um húsed.

5. Utkølludu Loth, og søgdu til hans. Hvar eru þeir menn sem komu til þín í nott? leid þá út til vor, so ver meigum kenna þeirra.

6. Loth geck ut fyrer dyrnar til þeirra, og let aptur dyrnar epter ser, og sagde.

7. Æ kærer brædur, gered eigi sodann glæp.

8. Siá, eg hefe tvær dætur, sem enn nu hafa eigi mann þydst, eg vil leida þær út til ydar, giøred vid þær hvad ydur lyster. Alleinasta gered þessum Mønnum eckert, þviad þar fyrer eru þeir her inngeingner, under skugga míns husa þaks.

9. Þeir svørudu, kom þú her nær. Og enn aptur, þú ert einn utlendur madur her, og villtu dæma oss, nu vel, ver vilium kvelia þig framar enn þá. Og þeir brutust hardt inn á þann mann Loth. Og sem þeir hlupu til og villdu brióta dyrnar upp.

10. Seilldust mennerner út, og tóku Loth inn í húsed til sín, og luktu dyrnar aptur.

11. Enn þeir menn sem fyrer dyrønum voru, urdu slegner med blindleika, bæde smáer og stórer, so leinge þeir urdu þreytter, og fundu hvørge dyrnar.

12. Þá mælltu mennerner vid Loth; ef þú hefir nockurn mág, sonu eda dætur, eda nockurn þer vanda-bundenn í stadnum, þá haf þá burt ur þessum stad.

13. Þvi vid skulum afmá þennann stad, þviad þeirra hróp er miked fyrer Drottne: hann sende ockur hingad ad fordiarfa þá.

14. Loth geck í burt og talade vid bidla dætra sinna, og sagde, standed upp og ganged út af þessum stad, þviad Drottinn vill fordiarfa þennann stad. Enn þeim þokte þad hlæelegt.

15. Og þá ed dagade, budu englarner Loth ad flyta ser, og søgdu, tak þína konu og þínar tvær dætur sem her eru, so ad þú fyrerfarest eigi í syndum þessa stadar.

16. Og sem hann seinkade, þá tóku mennerner í hendur hønum, og hans kvinnu, og hans tveimur dætrum, þviad Drottinn villde vægia hønum.

17. Og leiddu hann út, og letu hann út fyrer stadinn. Og þá hann hafde leidt hann út, þá sagde hann, frelsa ønd þína, og lyt eige aptur á bak, og nem hvørge stadar í þessu heradi, forda þer á fiallenu uppe, so þú fyrerfarest eige.

18. Þá sagde Loth til þeirra, Æ nei! Herra. Siá, med þvi þinn þenare hefir funded nád fyrer þínu auglite.

19. Þá viler þú mikla pína miskunseme, þá þú hefir nu veitt mer, í þvi, ad þú villder láta mig hallda lífe, eg kann eigi ad forda mer á þessu fialle, þvi kann ske, ad mer verde nockud vondt, so ad eg meige deya.

20. Se, her er einn stadur eige langt hedann, til hans get eg flúed, og er lítill, þar vil eg hiálpa mer, þo hann se lítell, ad eg meige hallda mínu líse.

21. Þá sagde hann til hans, siá eg hefe og álited þig í þessu efne ad eg vil eigi umturna þeim stad, sem þú hefir talad um

22. Flyt þer þangad, og forda, þer þar, þviad eg kann eckert ad gera, fyrr enn þú ert þar ínn komenn. Þar fyrer kallast sá stadur Zoar.

23. Og Solenn var upprunnenn yfer iørdena, þá Loth kom inn í Zoar.

24. Þá let Drottenn rigna brennesteine og elldе, frá Drottne af himnum, yfer Sodoma og Gomorra.

25. Og umturnade þeim stødum med øllu þvi herade, og øllum innbyggarum stadanna, og øllu þvi, sem í landenu vared var.

26. Og hans kvinna leit aptur á bak, og vard ad sallt-stolpa.

27. Abraham tók sig upp snemma morguns, til þess stadar, sem hann hafde ádur staded fyrer Drottne.

28. Og snere sínu andlite í mot Sodoma og Gomorra, og til alls lands þeirra herada, og sá sig um, og siá þú, þar upp geck einn reykur af landenu, þvi líkastur sem reykur af ofne.

29. Þvi þá Gud umturnade stødunum í þeim endemørkum, þá minntest han á Abraham, og leidde Loth af þeim borgum, sem hann eydelagde, þar sem Loth var búande.

30. Og Loth for af Zoar, og dvaldest á fiallenu med sínum tveimur dætrum, þvi hann ottadest ad vera í Zoar, og var í einum heller med sínum bádum dætrum.

31. Þá sagde sú elldre til þeirrar yngre, ockar fader er hnygenn á efra alldur, og þar er eingenn madur epter ordenn á iørdu sem leggiast meige med ockur, epter allrar verralldarennar plagsid.

32. Þar fyrer kom þú, og gefum fødur ockar vín ad drecka, og sofum hiá hønum, so vid meigum kveikia kin af ockar fødur.

33. So gáfu þær sínum fødur vín ad drecka þá sømu nótt. Og su hin elldre geck inn, og lagdest hiá sínum fødur. Enn hann visse eigi af þá hun lagde sig, og eigi þá hún upp stód.

34. Um morgunenn sagde su elldre til hinnar yngre, sia þú, í giær lá eg hiá míuum fødur, vid vilium og so á þessare nottu gefa hønum vín ad drecka, so þú meiger fara inn og sofa hiá hønum, ad vid mættum kveikia kin af ockrum fødur.

35. So líka gáfu þær sínum fødur á þeirre nottu vín ad drecka. Og su yngre dotturenn geck inn, og svaf med hønum. Og hann visse eigi til, þá hún lagde sig, og eigi þá hún upp stód.

35. So feingu bádar dætur Loths getnad af sínum fødur.

37. Og su elldre fødde einn son, þann kallade hún Moab. Af hønum komu þær Þioderer Moabitar kallast, allt til þessa dags.

38. Su yngre fødde og einn son, þann kallade hún Ben-ammi, af hønum komu Ammons børn allt til þessa dags.

## 20. Capitule.

1. Abraham flutte sig þadann í suduratt landsins, og sette búſtad ſinn á millum Kades og Sur, og vard útlendingur í Gerar.

2. Og ſagde um ſína kvinnu Sara, hun er mín ſyſter. Þá ſende Abimelech, kongurenn af Gerar, bod epter henne, og let ſækia hana

3. Enn Gud kom um nótt til Abimelech í draume, og ſagde til hans, ſiá þú. Þú ſkallt deya vegna þeirrar kvinnu ſem þú hefur teked, þvi hún á ſer mann.

4. Enn Abimelech hafde eigi ſnert hana. Hann ſagde, Drottinn, villtu þá ſlá rettlátt folk í hel?

5. Hefur hann eigi ſialfur ſagt mer, hún er mín ſyſter? hún hefir og ſagt, hann er minn broder, eg gerda þetta af einfølldu hiarta, og med ſaklauſum høndum.

6. Og Gud ſagde til hans í ſvefne, eg veit ad þú gerder þad af einfølldu hiarta, þar fyrer hef eg vardveitt þig, ſo þú misgerder eigi vid mig, og ei leyfda eg þer ad ſnerta hana.

7. So fá nu mannenum ſína kvinnu aptur, þvi hann er ſpamadur, og lát hann bidia fyrer þer, og muntu lifa. Enn ef þú fær hønum eigi aptur, þá ſkalltu vita, ad þú munt viſſulega deya, og allt þad þitt er.

8. Abimelech reis upp árla um morgunenn, og kallade ſamann alla ſína þenara, og talade øll þeſſe ord fyrer þeirra eyrum, og folked vard miøg ótta-ſleiged.

9. Og Abimelech kallade á Abraham og ſagde til hans, þvi hefur þú gert oſs þetta? hvad hef eg misgert vid þig, ad þú villder leida ſo ſtorann glæp yfer mig og mit ríke? eigi hefir þú breitt vid mig epter þvi ſem þer bar.

10. Og Abimelech ſagde enn framar til Abrahams, hvad hefir þú ſed þeſs, ad þú gerder þetta?

11. Abraham ſvarade, eg hugſade med mer, ſke má, ad ei ſe Guds ótte í þeſſum ſtad, og kann vera ad þeir ſláe mig í hel vegna minnar kvinnu.

12. Hún er þo í ſannleika mín ſyſter, þvi hún er míns føđurs dotter, enn ei minnar modur dotter, og er ordenn mín eigenn kvinna.

13. Enn þá Gud baud mer ad ganga út af míns føđurs húſe, þá ſagde eg til hennar, veit mer þá miſkun, ad hvar ſem vid komum, þá ſeigdu, ad eg ſe þinn broder.

14. Þá tók Abimelech, ſaude og naut, þræla og ambátter, og gaf þad Abraham, og feck hønum aptur Saram ſína eiginnkonu.

15 Og ſagde, ſiá þú; mitt land ſtendur oped fyrer þer, þar fyrer máttu búa hvar þer beſt líkar.

16. Og hann ſagde til Sara, ſiá þú, eg hefe gefed þínum brodur þuſund ſilfurpeninga, ſiá, þad ſkal vera ein hulda fyrer þínum augum, fyrer øllum þeim ſem eru hiá þer, og í øllum ſtødum. Og þad var hennar ſtraff.

17. Og Abraham bad til Guds, og Gud læknade Abimelech, og hans kvinnu, og hans ambátter, ad þær fæddu børn.

18. Þvi Drottinn hafde ádur tilluckt allann modurlegann kvid í Abimelechs húſe, fyrer ſaker Saru Abrahams kvinnu.

## 21. Capitule.

1. Og Drottinn vitiade Saru, ſem hann hafde lofad, og fullkomnade þad ſem hann hafde til hennar ſagt.

2. Og Sara vard ólett og fædde Abraham einn ſon í elle ſinne, í

Þeim sama tíma, sem Gud hafde sagt hønum.

3. Og Abraham kallade sinn son, Þann hønum var fæddur, Isaac, hvørn ed Sara fædde hønum.

4. Og hann umskar hann á áttunda deige, so sem ad Gud hafde boded hønum.

5. Abraham var hundrad ára gamall, þá hans son Isác var hønum fæddur

6. Þá sagde Sara, Gud hefir gert mer einn hlátur, Þviad hvør Þetta heyrer, hann mun hlæa ad mer.

7. Og hún sagde, hvør munde hafa Þorad ad seigia Abraham, ad Sara hefde barn á brioste, og hefde fædt hønum einn son í sinne elle?

8. Og barned ox upp, og vard vaninn af brioste. Enn Abraham gerde eitt miked gestabod, Þann dag, þá Isác var afvaninn.

9. Og Sara sá son Agar hinnar Egyptsku, hvørn hún hafde fædt Abraham, ad hann var einn spottare.

10. Þá mællte hún til Abrahams, rek Þessa Ambátt á burt, og hennar son, Þvi ei skal Þesse ambáttar son arf taka med mínum syne Isaac.

11. Þetta ord misÞocknadest Abraham miøg, søkum síns sonar.

12. Enn Gud sagde til hans, lát Þer eigi mislíka vegna sveinsins og ambáttarennar: ger allt sem Sara sagdi Þer. Þviad í Isaac skal Þer nefnast Þad sæde

13. Eg vil og gera ambáttarennar son ad Þiód, Þviad hann er Þitt sæde.

14. Þá stód Abraham upp árla morguns, og tók braud, og einn leigel med vatn, og lagde hann á herdar Agar, og so barned med, og let hana fara. Hún fór burt, og villtest á eydemørkenne hiá Bersaba

15. Og sem útdrucked var vatned af leiglenum, þá varpade hún barnenu nidur under eina eik.

16. Og geck í burtu, og settest nidur Þár gagnvart, so sem eitt ørskot Þar fra, Þvi hún sagde; eige get eg sed uppá, ad barned deyr. Og hún settest nidur gagnvart barnenu, og upphóf sína raust, og gret.

17. Þá bænheyrde Gud sveinsins raust, og Guds engell kallade af himne til Agar, og sagde til hennar; hvad er Þer Agar? hrædst Þú eigi, Þvi Gud bænheyrde sveinsins raust Þar sem hann liggur.

18 Statt upp, tak sveinenn og leid hann Þer vid hønd, Þvi eg vil gera hann ad mikelle Þiod.

19. Og Gud upplauk hennar augum, og hún sá einn brunn. Hún geck Þangad ad, og fyllte sinn leigel med vatne, og gaf sveinenum ad drecka.

20. Og Gud var med hønum, hann ogs upp, og bió í eydemørku, og vard einn gódur skotmadur.

21. Og bió í Þeirre eydemørku Pharan. Og hans moder tók hønum til handa eina eigennkvinnu af Egyptalande.

22. A Þeim tíma talade Abimelech, og Phichol hans hershøfdinge til Abrahams, og sagde: Gud er med Þer í øllum Þínum gerningum.

23. Þvi vil eg Þú vinner mer eid, vid Gud, ad Þú viler eigi syna mer, mínum børnum, eda mínum barna børnum nockra ótrú, helldur ad Þú viler veita miskunseme mer og mínu lande, í hvøriu Þú ert einn utlendingur, líka sem eg veitta Þer.

24. Þá svarade Abraham, eg vil sveria.

25. Og Abrahám avítade Abimelech, fyrer Þann vatnsbrunn, sem Abimelechs Þenarar høfdu teked med ofríke.

26. Þá svarade Abimelech; Eige var mer vitanlegt hvør þad gerde, Eige hefir þú helldur sagt mer þad, eigi hef eg helldur heyrt þad fyrr enn í dag.

27. Þá tók Abraham saude og naut, og gaf Abimelech. Og þeir gerdu eitt samband med ser.

28. Og Abraham tók sio Lomb, og let þau affsídis.

29. Þá mællte Abimelech til Abrahams, hvad skulu þau sio Lomb sem þú lætur þar affsídis?

30. Hann svarade: Þú skallt nu taka sio Lomb af minne hende, og þau skulu vera mer tti vitnis, ad eg hefe grafed þennann brunn.

31 Þar fyrer kallast þesse same stadur Bersaba, þviad þeir sórn þar báder hvør ødrum eida.

32. Og þeir gerdu so þar báder samband í Bersaba. Þá tók Abimelech sig upp, og Phichol hans hershøfdinge, og snere aptur i land þeirra Philisteis.

33. Enn Abraham plántade tre í Bersaba, og predikade þar út af nafne Drottins, þess eylífa Guds.

34 Og hann var utlendingur í lande Philistinorum, í langa tíma.

## 22. Capitule.

1. Epter þessa Atburde freistade Gud Abrahams, og sagde til hans, Abraham! hann svarade, her em eg

2. Og hann sagde, tak þinn einka son Isaac, þann þu elskar, og far í burt í þad landed Moria, og offra hann þar, til einnrar brennefórnar, á einu þvi fialle, sem eg vil vísa þer

3. Þá stód Abraham upp snemma morguns, og sødlade sinn asna, tók med ser tvo af sínum Þenørum, og sinn son Isaac; klauf videnn til brenneoffursins, tók sig upp, og ferdadist til þess stadar sem Gud hafde boded hønum.

4. Og á þeim þridia deige upplypte Abraham sínum augum, og sá þann stad áleingdar.

5 Þá sagde hann til sinna Þénara, bíded her med asnann, enn eg og sveirnenn vilium fara þangad, og þá vid høfum loked bæn ockar, þá vilium vid koma til yckar aptur.

6. Og Abraham tók brennefórnar videnn, og lagde hann uppa sinn son Isaac; enn hann bar elldenn og sverded ser í hende. Og þeir geingu tveir samann.

7. Þá mællte Isaac vid sinn fødur Abraham, minn fader! Abraham svarade, her em eg, minn son. Og hann sagde, siá þú, her er elldurenn og vidurenn, enn hvar er saudurenn til brenne-offursins?

8. Abraham svarade, minn son, Gud mun siá fyrer saud til brenneoffursins. Og þeir geingu tveir saman.

9. Og er þeir komu til þess stadar, sem Gud hafde sagt hønum, þá bygde Abraham þar eitt alltare, og lagde videnn þar á ofan, og bat sinn son Isaac, og lagde hann upp á alltared ofan á videnn.

10. Og rette sína hønd út, og greip sverded, ad hann slátrade sínum syne.

11. Þá kallade engill Drottins af himne til hans, og sagde, Abraham, Abraham. Hann svarade, her em eg.

12. Og hann sagde: leg eigi þína hønd á sveinenn, og ger hønum eckert. Þvi nu veit eg, ad þú ottast Gud, og þú vægder eigi þínum einka syni fyrer mínar Saker.

13. Þá upplypte Abraham sínum augum og sá eirn hrút fastann á hornunum, á bake ser í einum buska. Og hann geck þangad, og tók hrútenn, og færde hann í fórn

til brenne-offurs, í síns sonar stad.

14. Og Abraham kallade þann stad, Drottinn ser. Þar fyrer er þad máltæke enn til þessa dags, á þvi fialle, þar Drottenn ser.

15. Og Guds engell kallade enn í annad sinne af himne til Abrahams.

16. Og sagde, eg hefe svared vid mig sialfann, seiger Drottenn, af þvi ad þú gerder þennann hlut, og villder ei vægia þínum einka syne.

17. Ad eg vil blessa þig og margfallda þitt sæde, líka sem stiørnur á himnum, og so sem sand á siáfar strøndu. Og þitt sæde skal eignast borgar-hlid sinna óvina.

18. Og í þínu sæde skulu allar þioder á iørdunne blessast. Þvi þú varst hlydenn minne røddu.

19. So snere Abraham aptur til sinna þenara, og þeir tóku sig upp, og fóru til Bersaba, og biuggu þar.

20. Epter þessa atburde skede þad so, ad Abraham var sagt, siá, Milca hefir fædt þínum brodur Nahor børn, sem er.

21. Uz þann frumgetna, og Bus hans broder, og Kemuel, af hvørum Syri eru komner.

22. Og Chesed, og Haso, og Pildas, og Jedlaph og Bethuel.

23. Enn Bethuel gat Rebeckam. Þessa átta fædde Milca Nahor Abrahams brodur.

24. Og hans hiákona het Rehuma, hún fædde og so Theba, Gaham, Thahas og Maacha.

## 23. Capitule.

1. Sara lifde hundrad siø og tuttugu ár.

2. Og hún andadest í einum høfud stad sem het Hebron, í lande Canaan. Þá kom Abraham ad barma ser og gráta hana.

3. Sídann stód hann upp frá hennar líke, og talade vid Heths sonu og sagde.

4. Eg er einn utlendur Madur, og þó einn innbyggare á medal ydar, gefid mer einn eigennlegann stad, til greftrunar, her hiá ydur, so eg meige greftra þar minn frammlidenn, sem her liggur fyrer mer.

5. Þá svøruðu Heths syner Abraham, og søgdu til hans.

6. Heyr oss, kiære Herra, þú ert einn Guds høfdinge her á medal vor, graf þu þinn frammlidna her í vorum ærligustum grøfum, eingenn af oss skal meina þer sína grøf, ad þú meiger ei iarda þínn frammlidna þar úti.

7. Þá stód Abragam upp, og hneigde sig fyrer landsfolkenu, sem var fyrer Heths sonum.

8. Og talade vid þá, og sagde, ef þad er ydar vile, ad eg meige greftra her minn frammlidna, sem her liggur fyrer mer, þá heyred mig og bided fyrer mig Ephron son Zohar.

9. Ad hann vile unna mer þess tvøfállda hellirs, sem ad liggur vid endann á hans akre, ad hann sele mer hann fyrer peninga, so mikla sem hann er verdur, á medal ydar, til eins greftrunar eigindoms.

10. Þvi ad Ephron bió á medal Heths sona. Þá svarade Ephron Hethiter Abraham, so ad Heths syner heyrdu þar uppá, fyrer øllum þeim sem geingu ut og ínn, ad hans stadar portdyrum, og sagde.

11. Nei minn Herra, helldur heyr mig, eg gef þer þann akur, og þennann hellerenn sem þar er, og eg gef þer hann í valld, fyrer míns fólks barna augum, til ad iarda þinn frammlidenn.

12. Þá hneigde Abraham sig fyrer folkenu landsins.

13. Og talade vid Ephron, so ad lands folked heyrde uppá og sagde, viler þú unna mer akursins, þá bid eg, ad þú viler taka peninga fyrer hann, so vil eg greftra minn frammlidenn þar utí.

14. Þá svarade Ephron Abraham, og sagde til hans.

15. Minn Herra, heyr mig, sú iørd er verd fiøgur hundrud silfurpeninga, enn hvad er þad reiknanda á millum mín og þín? graf þú ad eins þinn hinn frammlidna.

16. Abraham hlyddde Ephron ad, og vog hønum þessa peninga út, sem hann sagde, þar heyrdu Heths børn uppá, þad voru fiøgur hundrud silfurpeningar gillder og geinger í kaup.

17. So vard Ephrons akur, í hvørium sá tvøfallde heller var, þvert yfer fra Mamre, Abraham stadfestur til eignar med hellernum, sem þar í var, og øllum triam, þar umkring akurenn.

18. Ad ásiáanoum Heths sonum, og øllum þeim, sem geingu út og inn um hans stadarport.

19. Epter þad greftrade Abraham sína kvinnu Sara, í þeim tvøfallda heller, á Akrenum þvert yfer fra Mamre, þad er Hebron, í Canaans lande.

20. Og sa akur og hellerenn þar úti stadfestest af Heths børnum, Abraham til erfda greftrunar.

## 24. Capitule.

1. Abraham var gamall, og hnygenn á efra alldur, og Drottinn hafde blessad hann í øllum hlutum.

2. Og hann sagde til síns elldsta þenara, sem var í hans húse, hvør ed settur var yfer allt hans gods, legg þína hønd under mínar lendar.

3. Og sver mer vid Drottinn Gud hìmens og iardar, ad þú skuler eigi taka mínum syne til handa nockra af þeim Cananeis dætrum hønum til eiginnar kvinnu, á medal hvørra eg er búande.

4. Helldur skalltu fara í mitt Fødurland til minnar ættar, og bidia þar mínum syne Isaac til handa eigenn konu.

5. Þionenn svarade, enn ef konan vill eigi fylgia mer hingad í þetta land, skal eg þá færa þinn son þangad, í þad land aptur, af hvøriu þú ert útgeingenn?

6. Abraham sagde til hans, varast þú ad hafa minn son þangad aptur.

7. Drottinn Gud himens, sá sem tók mig fra míns fødurs húse, og fra minne ódal-iørdu, sá sem talade vid mig, og vann mer eid og sagde; Þetta land vil eg gefa þínu sæde, hann mun senda sinn engil fyrer þer, so þú munt þar taka mínum syne til handa eigennkonu.

8. Enn vile konann eigi fylgia þer, þá ertu kvittur þessa eids, eins kostar, láttu minn son ei koma þangad.

9. Þá lagde sveirnenn sína hønd under lendar Abrahams síns Herra, og vann hønum eid ad þessu.

10. So tók sveirnenn tíu ullfallda af síns Herra úlføllldum og fór af stad, og hafde allra handa med ser af síns Herra godse. Og tók sig upp, og fór í Mesopotamiam, til Borgarennar Nahor.

11. Þar hvílde hann sína Ullfallda utann borgar, í móte aptne, hiá einum brunne, á þeim tíma sem konur voru vanar ad fara út epter vatne. Og hann sagde.

12. Drottinn Gud míns Herra Abrahams, kom nú á þessum deige til mín, og veit miskunseme mínum Herra Abraham.

13. Siá, eg stend nu her hiá þessum brunne, og mannanna dætur af borgenne koma nu hingad epter vatne.

14. Og þá her kemur nu ein pika til hvørrar eg seige, hneig þína skiolu nidur, og lát mig drecka, og hún seiger; dreck þú, eg vil og gefa þínum ulfølldum ad drecka; ad hún se su hin sama, sem þú hefur fyrerhugad þínum þion Isaac. Og ad eg meige merkia her út af, ad þú hefur audsyndt miskunsemd mínum Herra.

15. Enn ádur enn hann hafde þetta úttalad, siá, þá kom Rebecka, hún var dotter Bethuels, sonar Milca, og Milca var Nahors Abrahams brodúr kvinna, og hún bar eina skiolu á øxlenne.

16. Og var miøg væn pika álits, og enn þá jungfró, so eingiun madr hafde enn þá þydst hana. Hún ste ofann í brunnenn, og fyllte sína skiolu, og kom upp aptur.

17. Þá rann Abrahams þenare í móte henne, og sagde, gef mer ad drecka líted vatn af þinne skiolu.

18. Hún sagde, dreck, minn Herra! og strax tók hún skioluna í sína hønd, og gaf hønum ad drecka.

19. Og sem hún hafde gefid hønum ad drecka, þá sagde hún, eg vil og sækia vatn þínum ulfølldum, þangad til ad þeir hafa aller drucked.

20. Og hún flytte ser, og steypte úr skiolunne í vatns trygelenn, og hliop aptur ofann til brunnsins og bar vatned upp, og vatnade øllum hans ulføldum.

21. Mannenn furdade þetta, um hana, og þagde þó, þar til hann kynne ad vita, hvørt Drottenn vilde láta hans reisu luckast, edur ei.

22. Og sem hans ulfaldar høfdu aller drucked, tók hann eina gullega ennisspaung, ad vigt halfur Siclus, og sette tvo armhringa á hennar hendur, sem voru ad vigt tíu Sicli gulls.

23. Og hann sagde, mín dotter, hvørra manna ert þú? seig þú mer þad, er eigi rúm í þíns fødurs húse ad herbergia oss.

24. Hún svarade, eg er Bethuels dotter, sonar Nahors, sem Milca fædde hønum.

25. Og hún sagde framar meir til hans, ver høfum hálm og fódur nogt, og godt rúm til ad herbergia ydur.

26. Þá laut madurenn nidur, og bad til Drottins,

27. Og sagde; lofadur se Drottinn Gud míns Herra Abrahams, sem eigi hefur yfergefed sína miskun og sannleika vid minn Herra, Þviad Drottinn hefur leidt mig þann retta veg, hingad til míns Herra brodurs húss.

28. Og píkann rann heim og bar øll þesse ord í sinnar modur hús.

29. Enn Rebecka átte einn broder, sem het Laban, og Laban skundade út til mannsins, ad brunnenum.

30. Og sem hann sá eyrnagulled og hríngana á høndum sinnar systur, og heyrde ord Rebecku sinnar systur, þad hún sagde, so og so hefir madurenn mællt; Þá kom hann til mannsins, og siá þú, hann stod hiá brunnenum, med sína ulfallda.

31. Og hann sagde, kom her inn þú blessadur af Drottni, þvi stendur þú her úte? eg hefe búed þer herberge og skickad þer rúm til þinna ulfallda.

32. Og hann leiddi mannenn inn í húsed, og spretti af hans ulføllldum, og gaf þeim hálm og fód=

ur, og so vatn til ad þvo hans fæt=
ur, og hans manna, sem komu med
hønum.
33 Og hann sette fædslur fram
fyrer hann. Enn hann sagde, eg
vil ey matar neyta, fyrr enn eg hefe
reked mitt erende. Þeir svørudu,
seig þú fram þitt erende.
34. Hann svarade, eg er Abra=
hams þenare,
35. Og Drottinn hefir ríkuglega
blessad minn Herra, ad hann er
stormegtugur ordenn, og hann hef=
ir gefed hønum naut og saude,
silfur og gull, Þræla og am=
bátter, ulfullda og asna.
36. Og her med hefir Sara míns
Herra húsfru fædt hønum einn
son í sinne Elle, hønum hefur hann
gefed allt þad sem hann á.
37. Og minn Herra hefir teked
eid af mer, og sagt; þú skallt ei
taka mínum syne til handa nockra
kvinnu af þessum Canaans dætrum
í þvi lande, sem eg bý.
38. Helldur far þú til míns fød=
urs húss, og til minnar ættar, og
tak þar mínum syne til handa eina
kvinnu.
39. Enn eg svarade mínum
Herra: enn ef kvinnann vill eigi
fylgia mer?
40. Þá sagde hann til mín: sá
Drottinn, fyrer hvørium eg geing,
hann mun senda sinn engil med
þer, og gefa lucku til þinnar reisu,
so ad þú munt taka mínum syne til
handa eina kvinnu, út af minne
ætt, og af mínu fødurshúse.
41. So skalltu vera kvittur fyr=
er mínum eide, nær þú kemur til
minnar ættar, vile þeir eigi gefa
þer hana, so ertu kvittur þessa
míns eids.
42. So kom eg á þessum deige
til brunnsins, og sagde: Drottenn
Gud míns herra Abrahams, hafer
þú gefed mer nád til þessarar reisu
sem eg hefe ferdast.
43. Siá þú, eg stend her hiá þess=
um brunne, og nær her kemur nu
ein jungfru ad sækia vatn, og eg
seige til hennar, gef mer líted vatn
af þinne skiolu til ad drecka.
44. Og hún seiger, dreck þú, og
vil og sækia vatn til þinna ulfalda,
ad hún skal vera su kvinna, sem
Drottenn hefir fyrerhugad míns
Herra syne.
45. Enn ádur eg hafde úttalad
þesse Ord í mínu hiarta, siá, þá
kom Rebecka út hingad, og bar eina
skiolu á sínum ørlum, og hún ste
nidur til brunnsins, og bar upp
vatned. Þá sagde eg til hennar,
gef mer ad drecka.
46. So tók hún skioluna strax
af sinne ørl, og sagde, dreck þú, og
vil og gefa þínum ulføldum ad
drecka, og eg drack, hún vatnade og
so ulfølldønum.
47. Eg spurde hana og ad, og
sagde, hvers dotter ert þú? hún
svarade, eg er Bethuels dotter, sem
er Nahors son, hvern ed Milca
fædde hønum. Þá let eg eitt hlad
um hennar enne, og armhring á
hennar hendur.
48. Og eg laut nidur, og tilbad
Drottenn, og lofade Drottenn Gud
míns Herra Abrahams, sem færde
mig hingad þann retta veg, ad eg
skyllde fá míns Herra brodurs dott=
ur hans syne til handa.
49. Þar fyrer, ef þer viled syna
vináttu og trú mínum Herra, þá
seiged mer þad, enn viled þer þad
eigi, þá seiged mer og eirnen þad,
so ad eg meige vikia annad hvørt
til hægre eda vinstre handar.
50. Þá svarade Laban og Bethu=
el, og søgdu, frá Drottne er þetta
komed, þar fyrer kunnum ver eigi
neitt ad mæla á mote þer, hvørte
íllt ne gott.

51. Siá þú þar er Rebecka framme fyrer þer, tak þú hana og far aptur, ad hún se þíns Herra sonar kona, so sem Drottin hefir sagt.

52. Og sem Abrahams þión heyrde þesse Ord, hneigde hann sig til jardar, fyrer Drottne.

53. Og hann tók upp silfurs og gulls gersemar, og klædnad, og gaf Rebecku. Enn hennar brodur og modur gaf hann jurter.

54. So átt hann og drack, og þeir menn sem voru med hønum, og þeir voru þar um nottena. Ad morgne dags stod hann upp, og sagde, leyfed mer nu ad fara heim til míns Herra.

55. Þá svarade hennar broder og moder, lát þú stulkuna blífa her hiá oss, eina tíu daga, sídann máttu fara.

56. Hann sagde til þeirra, tefed eigi fyrer mer, þviad Drottinn hefir gefed mer eina luckusamlega reisu, láted mig fara heim til míns Herra.

57. Þau svørudu, ver skvlum kalla á píkuna, og spyria epter hvad hún sialf seiger til.

58. So køllvdu þau Rebecku fyrer sig, og søgdu til hennar, villtu fara med med þessum manne? hún svarade, iá, eg vil fara med hønum.

59. So letu þau Rebecku sína systur, og hennar Fostur-Modur fara med Abrahams þenara, og med hans mønnum.

60. Og þau blessudu Rebeckam og søgdu til hennar, þú ert vor syster, vaxe af þer mørg Þusund þusunda, og þitt sæde eigneſt borgarhlid sinna óvina.

61. So tók Rebecka sig upp med sínum ambáttum, og settu sig á ulfallda, og fóru med mannenum. Og þenarenn medtók Rebeckam, og fór af stad.

62. Enn Isaac kom frá þeim Brunne, sem kalladest þess lifanda og siáanda, þvi hann bio í sudurátt landsins.

63. Og var útgeingenn í mote aptne, ut á akureun, ad gera sína bæn. Og hann upplypte sínum augum og sá hvar ulfalldar komu.

64. Og er Rebecka leit upp, og sá Isaac, ste hún nidur af ulfalldanum.

65. Og sagde til sveinsins, hvør er sa madur sem kemur á mote oss þar á akrenum? hann sagde, þad er minn Herra. Þá tók hún sína kápu, og hulde sig.

66. Og sveirnenn sagde Isaac fra øllum þeim atburdum, sem sked høfdu, og hvad hann hafde útrett.

67. Þá leidde Isaac hana í tialldbud sinnar modur Saru, og tók hana ser til eigennkonu, og elskade hana, so vard Isaac huggadur þess harms, sem hann hafde epter sína modur.

## 25. Capitule.

1. Abraham gipte sig aptur einne kvinnu, sem het Ketura.

2. Hún fædde hønum Simron og Jaksan, Medan og Midian, Jesbak og Suah.

3. Og Jaksa gat Seba og Dedan. Enn Dedans børn voru þesse, Assurim og Latusim og Leumim.

4. Og Midians børn voru, Epha, Epher, Hanoch, Abida, og Elda. Þesser aller eru Keture syner.

5. Og Abraham gaf Isaac øll sín audæfe.

6. Enn þeim ødrum børnum, sem hann hafde aflad med sínum hiákvinnum, gaf hann gáfur, og let þau fara á burt í austur-átt, fra sínum syne Isaac, á medann hann var enn á life.

7. Þetta er Abrahams alldur,

sem hann lifde, hundrad fimm og fiøtíger ár.

8. Og hann fór hnignande og andaftest í einnre rolegre elle, þá hann var hnygenn ad alldre, og saddur af lífdøgum, og safnadest til sins folks.

9. Og hans syner Isaac og Ismael iørdudu hann í þeirre tvøfalldre grøf, á akre Ephrons Zohar Hethiters sonar, sem ad liggur yfer fra Mamre.

10. Á þeim akre hvørn Abraham keypte ad Heths sonum. Þar var Abraham iardadur hia Sara sinne eigennkvinnu.

11. Og epter andlát Abrahams blessade Gud Isaac hans son, og Isaac bio hiá þeim brunne þess lifanda og siáanda.

12. Þesse er Ismaels Abrahams sonar ættkvísl, sem Agar Ægyptska Ambátt Saru fæddi hønum.

13. Og þesse eru Ismaels sona nøfn, sem þeirra Ætt er nefnd epter.

14. Nebaioth var hanns frumgetenn son, sídann Kedar, Adbeel, Mibsam, Misna, Duma, Masa.

15. Hadar, Thema, Jetur, Naphis, og Kedma.

16. Þesser eru þeir Ismaels syner, med þeirra nøfnum, ut í þeirra hofgørdum og stødum, tolf høfdingiar yfer þeirra folke.

17. Og þetta er Ismaels alldur, hundrad þríatíu og sió ár, og hann fór hnignande og andadist, og safnadist, til sins folks.

18. Og þeir biuggu fra Hevila og ínn til Sur, gegnt Ægyptalande þar sem menn fara til Assyriam. Hann fell fyrer øllum hans Bræd-rum.

19. Þesse er Isaacs Abrahams Sonar ættkvísl, Abraham gat Isaac.

20. Og Isaac var fiørutígu ára gamall, þá hann geck til ad eiga Rebecku Bethuels dotter hins syrlendska, Mesopotamia, syster Labans hins syrlendska.

21. Og Isaac bad til Drottins fyrer sinne kvinnu, þvi hún var óbyria. Og Drottinn heyrde hans bæn, og Rebecka hans hustru feck getnad.

22. Og børnenn hnitludust vid í hennar kvide. Þá sagde hún, ef þad skal so ganga mer, þvi er eg þá ólett ordenn? og hún geck í burt, og spurde Drottinn þar ad.

23. Og Drottinn svarade henne, tvær þioder eru í þínum kvide, og tvæggia handa lyder skulu skiliast fra þínum kvide, og lydur mun lyd yferstíga, og hinn meire mun þeim minna þiona.

24. Og sem sa tíme kom, ad hún skyllde lettare verda, siá, þá voru þar tvíburar í hennar kvide.

25. Og hinn fyrste sem kom í lios, hann var raudur ad lit, og allur saman lodenn sem eitt skinn, og þeir nefndu hann Esau.

26. Jafnsnart kom í liós hans broder, og hellt um hælenn á Esau sinne hende, og þvi nefndu þeir hann Jacob. Isaac var sextugur ad alldre, þá þeir voru fædder.

27. Og sem sveinarner voru nu varner, þá gerdest Esau veidemadur, enn Jacob var gódur madur, og bio í tialldbudenne.

28. Isaac elskade Esau, og át giarnann af hans veide, enn Rebecca unne Jacob.

29. Og Jacob hafde matgiørt einn rett, og í þvi bile kom Esau af akre, og var módur.

30. Og sagde til Jacob, lát mig smacka af þeirre raudu matgiørd þinne, þvi eg em módur, og af þvi kallast hann Edom.

31. Enn Jacob sagde, sel þú mer þá í dag þína Frumgetning.

32. Esau svarade, siá, eg hlyt ad deya, hvad stodar mig sú frumgetning?

33. Þá sagde Jacob, þá vinn mer eid í dag þar ad. Og hann sór hønum eid.

34. Og so sellde hann Jacob sína frumgetning. Þá gaf Jacob hønum braud, og af þeirre matgerd sem hann hafde tilreidt af grionum. Og hann át og drack, reis upp og geck í burt; so lítels virdte Esau sína frumgetning.

## 26. Capitule.

1. Og þar vard enn mikid hallære í landenu, auk þess halláris er ádur var á døgum Abrahams. Og Isaac fór til Abimelechs Kongs Philistinorum af Gerar.

2. Þá vitradist Drottinn hønum og sagde, far þú eigi í Egyptaland, helldur vertu í þvi laude, sem eg seige þer.

3. Vertu einn útlendingur í þessu landi; eg vil vera med þer, og blessa þig, þviad þer, og þínu sæde vil eg gefa øll þesse lønd, og eg vil efna þann Eid, sem eg sór þínum fødur Abraham.

4. Og eg vil þitt sæde margfallda so sem stiørnur á himnenum, og eg vil gefa þínu sæde øll þessi lønd. Og í þínu sæde skulu allar Pioder á iørdunne blessast.

5. Fyrer þvi ad Abraham var hlydugur minne røddu, og vardveitte mín rettinde, mínar Skickuer, og mitt løgmál.

6. Og Isaac bió í Gerar.

7. Enn sem folked í þeim Stad spurde ad hans kvinnu, þá sagde hann. Hún er mín syster, þvi hann vogade ei ad seigia, hún er mín kvinna, meinande, kann ske þeir sláe mig í hel Rebecku vegna, þvi hún var hardla fríd synum.

8. Sem hann hafde nu vered þar nockra stund, leit Abimelech Philisteis kongur í gegnum einn glugg, og vard þess var, ad Isaac lek vid Rebecku sína konu.

9. Þá kallade Abimelech á Isaac, og sagde, siá, hún er þín eigennkona, þvi hefur þú þá sagt, ad hún være þín syster? Isaac svarade hønum, eg hugsade med mer, ske má ad þeir sláe mig í hel fyrer hennar skulld.

10. Þá sagde Abimelech, Þvi hefur þú so breitt vid oss? Þad hefde snart kunnad ad ske, ad nockur af folkenu hefde lagst med þinne kvinnu, þá hefder þu leidt einn glæp yfer oss.

11. Þá baud Abimelech øllu folkenu og sagde, hvør hann snerter þennann mann eda hans konu, sá skal dauda deya.

12. Og Isaac sáde í þvi lande, og hans Akur bar hundradfalldann ávøgst á þvi áre, Þviad Drottenn blessade hann.

13. Og hann vard audugur og efldest meir og meir, allt þar til ad hann vard miøg megtugur.

14. So ad hann vard stor-audugur ad kvikfe smáu og storu, hann hafde og fiølda Pionustu folks. Þar fyrer øfundudu Philistei hann

15. Og byrgdu aptur alla þá brunna sem hans fødurs Þenarar høfdu grafed, í Abrahams hans fødurs tíd, og fylltu þá med molld.

16. So ad Abimelech sagde til hans: Vík fra oss, þviad þú ert ordenu oss of-megtugur.

17. Þá for Isaac burt þadann, og sette sína tialldbúd í þeim dal Gerar, og bió þar.

18. Og hann let upp grafa þá brunna aptur sem þeir høfdu graf-

ed á døgum Abrahams hans fødurs, hvøria brunna ad Philistei høfdu byrgt aptur epter Abrahams dauda. Og hann gaf þeim þau sømu nøfn, sem hans fader hafde ádur gefed þeim.

19. So grófu Isaacs þenarar í dalnum og fundu þar einn brunn lifanda vatns.

20. Enn hirdararner af Gerar þrættust á vid Isaacs hirdara, og søgdu; Pad er vort vatn. Þar fyrer kallade hann þann brunn Esek, þvi þeir gerdu þeim þar órett.

21. Þá grófu þeir einn annann brunn, og þeir kíttdu eirnen um hann, og þvi kallade hann hann Sitna.

22. Þá fór hann þar frá, og gróf einn annann brunn, og þeir høfdu eckert kíf um hann: þar fyrer kallade hann hann Rehoboth, og sagde; nú hefur Drottinn gefed oss rúm og láted oss vaxa í landenu.

23. Sídan fór hann þadann til Bersaba.

24. Og Drottinn vitradest hønum þá sømu nott, og sagde, eg em þíns fødurs Abrahams Gud, óttast eigi, þvi eg em med þer, og eg vil blessa þig, og margfallda þitt sæde, vegna míns þenara Abrahams.

25. Þá byggde hann þar eitt altare og predikade um Drottins nafn og sette þar sína tialldbúd, og hans þenarar grófu þar einn brunn.

26. Og Abimelech fór til hans frá Gerar og hans vinur Ahusath og Phichol hans hershøfdinge. Þá sagde Isaac til þeirra,

27. Þvi komed þer til mín? hvørn þer hafed ádur hatad, og teked frá ydur?

28. Þeir svørudu; ver siáum berlega, ad Drottinn er med þer, þar fyrer søgdum ver, ad þar skyllde vera svardage á millum þín og vor, so ad ver villium gera einn sáttmála vig þig.

29. Ad þú skuler engann skada gera oss, so sem ver høfum eigi snorted þig, og eigi annad gert þer enn allt gott, og ver letum þig fara í fride, enn þú ert nu blessadur af Drottne.

30. Þá gerde hann þeim eitt gestabod, og þeir átu og drucku.

31. Og þeir stódu snemma upp um morgunenn, og unnu eida hvøcer ødrum. Og Isaac let þá fara, og þeir fóru fra hønum í fride.

32. Þann sama dag komu Isaacs þenarar, og søgdu af þeim brunne, sem þeir høfdu grafed, og søgdu til hans, ver høfum funded vatn.

33. Og þann brunn kallade hann Saba, þar af kalladest sá stadur Bersaba, allt til þessa dags.

34. Þá Esau var fiørutígu ára gamall, þá geck hann til ad eiga Judith dottur Beri Hethei, og Basmath dottur Elons Hethei.

35. Þær gerdu bádar hiartans sorg Isaac og Rebecku.

## 27. Capitule.

1. Og þad skede so, þá Isaac var ordenn gamall ad alldre, og hans augu voru myrk ordenn, so hann kunne eigi ad siá. Hann kallade þá sinn elldra son Esau, og sagde til hans; minn sonur. Hann svarade hønum, her em eg.

2. Og hann sagde; siá, eg em ordenn gamall, og veit eigi nær eg mune deya.

3. Þvi tak nu þín veidarfære, þitt pílnakofur, og þinn boga, og far ut á mørkena, og veid mer nockud villudyr.

4. Og matreid þú mer þar af fædu, so sem þú veitst, eg vil giarnann hafa, og ber mer hana ínn hingad, ad eg meige eta, so ad mín

ſál meige blesſa þig, ádur enn eg andaſt.

5. Rebecka heyrde þeſſe ord, ſem Jſaac mællte til ſíns ſonar Eſau. So geck Eſau ótt á mørkena ad veida villudyred, ſo hann mætte færa þad heim.

6. Þá mællte Rebecka til Jacobs ſíns ſonar, ſiá þú, eg heyrde þinn fødur talanda vid þinn brodur Eſau, og ſeigia; ſæk mer villubráð.

7. Og tilreid mer einn rett, hvar af ad eg ete, ad eg gefe þer bleſſan fyrer Drottne, ádur enn eg andeſt.

8. So hlyd nu, ſon minn røddu minne, hvad eg ſkipa þer.

9. Far þú til hiardarennar, og haf hingad til mín tvø góð kid, ſo eg kunne ad gera af þeim fædſlu þínum fødur til handa, af hverre hann giarnann neyter.

10. Þá fædſlu ſkalltu bera inn til þíns fødurs, ad hann ete þar af, ſo ad hann bleſſe þig, ádur enn hann andaſt.

11. Jacob ſagde til Rebecku ſinnar modur, ſiá, minn broder Eſau er lodenn, enn er ſnøggur.

12. Má vel ſke, ad minn fader þreiſe á mer, og hønum þyke þá ſem eg hafe viliad blekkia ſig, og fære þá bølvan yfer mig, enn eigi bleſſan.

13. Þá ſagde hans moder til hans, ſú bølvan kome yfer mig, ſon minn, hlyd þú ad eins minne røddu, og far ad ſækia mer (þau).

14. Þá geck hann á burt, ſókte þau og færde ſinne modur. So matbió hans moder eina fædſlu, þá ſem hans fader villde giarnann hafa.

15. Og hún tók þau beſtu klæde Eſau ſíns elldra ſonar, þau ſem hún hafde í húſenu hiá ſer, og færde Jacob ſinn yngra ſon í þau.

16. Enn ſkinned af kidenu let hún um hans hendur, og þar ſem hann var hárlaus á halſenum.

17. Og feck ſo Jacob ſínum ſyne þá fædu í hønd, ſem hún hafde tilbúed, og ſo braud.

18. Og hann geck ínn til ſíns fødurs, og ſagde; minn fader, hann ſvarar; her em eg. Hver ertu minn ſonur?

19. Jacob ſagde til ſíns fødurs, eg em Eſau þinn frumgetenn ſonur, eg hefe gert þad ſem þú bífalader mer, rís upp, og ſit, og et af mínu villubráde, ſo ad þín ſál meige bleſſa mig.

20. Þá ſagde Jſaac til ſíns ſonar; ſonur minn, hvernenn mátter þú finna þad ſo ſkiótt? hann ſvarade Drottinn Gud þinn ſende mer þad til handa.

21. Þá ſagde Jſaac til Jacobs, kom hingad minn ſonur, ſo eg meige þreifa á þer og reyna hvert ad þú ert minn ſonur Eſau, ellegar ei.

22. Þá geck Jacob ad ſínum fødurJſaac. Og ſem hann hafde þreifad á hønum, ſagde hann, røddenn er Jacobs rødd, enn hendurnar eru Eſau hendur.

23. Og hann þeckte hann eigi, þvi hans hendur voru lodnar ſo ſem hendur Eſau hans brodurs. Og hann bleſſade hann.

24. Og ſagde til hans, hvert ert þú minn ſonur Eſau? hann ſvarade, iá, eg em hann.

25. Þá ſagde hann, fær mer þá hingad, minn ſonur, og lát mig eta af þinu villubráde, ſo ad mín ſál bleſſe þig. Þá bar hann hønum þad, og hann át. Hann bar hønum og vín ínn, og hann drack.

26. Sídann ſagde hans fader Jſaac til hans, kom her, ſonur minn, og kyſs mig.

27. Og hann geck ad hønum og kyſſte hann. Þá kennde hann ylmenn af hans klædum, og bleſſade hann og ſagde. Siá, míns ſonar

ylmur er so sem ylmur af þeim akre hvørn Drottinn hefur blessad.

28. Gud gefe þer af døggu himens, og af feite jardar, og nægd korns og víns.

29. Þióder skulu þióna þer, og folked skal falla þer til fóta. Vertu einn Herra yfer þínum brædrum, og børn þinnar modur skulu falla þer til fóta. Bølvadur vere sá sem þer bølvar, og blessadur se sá sem þig blessar.

30. Og sem Isaac hafde endad þessa blessan yfer Jacob, og Jacob var sem naumast útgeingenn frá sínum fødur Isaac, þá kom Esau hans broder heim fra sínum veideskap.

31. Og hann tilreidde og so eina fædslu, og bar inn til síns fødurs, og sagde til hans, rís upp minn fader, og et af villubráde þíns sonar, so ad þín ønd meige blessa mig.

32. Þá svarade Isaac hans fader, hver ert þú? hann svarade, eg em Esau þinn frumgetne sonur.

33. Isaac vard hardla miøg felms fullur, og sagde, hvad? hvar er þá sá veidemadur sem mer færde, og eg át þar af ádur þú komst? Og eg blessade hann, og hann mun vera blessadur.

34. Sem Esau heyrde þesse síns fødurs ord, hrópade hann hárre røddu, og vard yfer máta sorgfullur, og sagde til síns fødurs, blessa þú mig og so, fader minn.

35. Hann svarade, þinn broder kom med kænsku, og tók í burtu þína blessan.

36. Þá sagde hann, rettelega er hans nafn Jacob, þvi hann hefir nu í tvær reisur under fótum trodid mig. Mína frumgetning tók hann burt, og siá, nu tekur hann og so mína blessan. Og hann sagde, hefir þú þá eigi ætlad mer epter neina blessan?

37. Isaac svarade og sagde til hans; eg hefe sett hann til eins Herra yfer þig, og alla hans brædur gerde eg til hans þenara, eg hefe og fed hønum fyrer korne og víne, hvad skal eg nu gera þer, minn sonur?

38. Esau sagde til síns fødurs, hafder þú eigi utann þá eina blessan, minn fader? blessa mig og so, minn fader. Og hann upphóf sína raust og gret.

39. Þá svarade Isaac hans fader, og sagde til hans; siá, þar, þú skallt hafa einn feitann bústad á iørdunne, og af døggu himensins her ofann ad.

40. Af þínu sverde skalltu næra þig, og þióna muntu þínum brodur. Og þad mun ske, ad þú munt verda einn Herra, og munt fá slited hans ok af þínum hálse.

41. Og Esau vard reidur vid Jacob søkum þeirrar blessanar sem hans fader hafde blessad hann med, og hann sagde í sínu hiarta, sú stund skal snarlega koma, ad minn fader skal gráta, þvi eg vil slá Jacob minn brodur í hel.

42. Og Rebecka feck þad ad vita, ad Esau hennar elldre sonur hafde so sagt: þvi sende hún í burt, og let kalla sinn yngra son til sín, og sagde til hans, siá þinn broder Esau heitast vid þig, ad hann vile lífláta þig.

43. Þvi heyr þú nu mín ord, minn sonur, tak þig upp og fly til míns broburs Laban í Haran.

44. Og vert um stund hiá hønum, þar til ad sefast grimmd brodur þíns.

45. Og þar til hans reide, sem hann hefir til þín, snyst frá þer, og hann gleymer þvi, sem þú hefir gert á móte hønum: sídann vil eg

senda þer bod, og hafa þig burt þadan, þvi skal eg missa yckur báda á einum Deige?

46. Og Rebecka sagde til Isaac, mer leidest ad lifa vegna þeirra Heths dætra, ef ad Jacob tekur ser eigennkonu af þeim Heths dætrum, þær sem eru med soddann hætte sem þessa lands dætur, þvi skyllde eg þá leingur lifa?

## 28. Capitule.

1. Þá kallade Isaac Jacob son sinn fyrer sig, og blessade hann, baud hønum og sagde til hans, þú skallt eigi taka þer eigennkonu af þeim Canaans dætrum.

2. Helldur tak þig upp, og far í Mesopotamiam, til Bethuels þíns modurfødurs húss, og tak þer þar eigennkonu til handa af dætrum Labans, þíns modurbrodurs.

3. Almáttugur Gud blesse þig, og gere þig ávartarsamann, og margfallde þig, so þú verder til eins mikels folks.

4. Hann gefe þer Abrahams blessan, þer og þínu sæde med þer, so ad þú eignest þad land í hveriu þú ert framande, hvert Gud gaf Abraham.

5. So sende Isaac Jacob þangad, og let hann fara í Mesopotamiam til Labans Bethuels sonar í Syrien, hvør ad var broder Rebecku modur hans og Esau.

6. Enn sem Esau sá þad, ad Isaac hafde blessad Jacob, og sendt hann til Mesopotamiam, ad hann skyllde kvongaz þar, og hann hafde under eins blessad hann, boded hønum, og sagt so, þú skallt ei taka þer eigennkonu af Canaans dætrum.

7. Og ad Jacob var sínum fødur og modur hlydugur, og fór burt í Mesopotamiam.

8. Hann sá og eirnenn, ad sínum fødur Isaac var eigi um þær Canaans dætur.

9. Þá geck hann burt til Ismael, og tók ser til eigennkonu dottur Ismaels, Abrahams sonar, Mahalath, syster Nebahioth, ad auk þeirra kvenna sem hann átte ádur.

10. Enn Jacob fór fra Ber-Saba, og reiste til Haran.

11. Og hann kom í nockurn stad, þar var hann um nott, þviad soleun var undergeingenn. Og hann tók einn stein í þeim sama stad, og lagde hann under sitt høfud, og lagde sig til svefns í þeim sama stad.

12. Og hann dreymde; og siá þú: einn stige stod á iørdu, hvørs effsta bust náde upp til himensins, og siá, Guds einglar fóru upp og ofann epter hønum.

13. Og Drottinn stód þar upp yfer, og sagde, eg em Drottinn Gud þíns fødurs Abrahams, og Gud Isaacs, þetta land, á hveriu þú liggur nu, vil eg gefa þer og þínu sæde.

14. Og þitt sæde skal verda sem dupt á iørdunne, og þú skallt utbreidast til vesturs og austurs, nordurs og sudurs, og í þer og þínu sæde skulu allar þioder á iørdunne blessast.

15. Og siá þú, eg em med þer, og eg vil vardveita þig hvert sem þú fer, og eg vil færa þig í þetta land aptur, þvi eg vil eigi yfergefa þig, fyrr enn eg hefe fullkomnad þad allt, sem eg hefe sagt þer.

16. Og sem Jacob vaknade af sínum svefne, sagde hann, sannliga er Drottenn í þessum stad, og eg visse þad eigi.

17. Hann óttadest og sagde, hversu heilagur er þesse stadur? her er eigi annad enn Guds hús, og her er hlid himens.

18. Og Jacob stód upp snemma

morguns, og tók þann stein sem hann hafde lagt under sitt høfud, og reiste hann upp til eins marks, og hellte vidsmiøre yfer hann.

19. Og hann kallade þann sama stadBeth-El.ádur het sá stadurLus.

20. Og Jacob streingde eitt heit, og sagde, ef Gud er med mer, og vardveiter mig á þessum veige sem eg nú ferdast, og gefir mer braud ad eta, og klæder mig.

21. Og færer mig heim aptur til míns føðurs húss med fride, þá skal Drottinn vera minn Gud.

22. Og þesse steinn, sem eg hefe nú uppreist til eins teikns, skal verda Guds hús, og eg vil færa þer tíunder, af øllu þvi sem þú gefir mer.

## 29. Capitule.

1. Sídann upplypte Jacob sínum fótum, og geck í þad land, sem liggur til austurs.

2. Og hann skygndest umkring, og siá, þar var einn vatnsbrunnur á akrenum, og siá, þar lágu hiá brunnenum þrennar saudahiarder, þvi þeir voru vaner ad vatna hiørdunum af brunnenum, þar lá og einn stór steinn ofann yfer munna brunnsins.

3. Og þeir pløgudu ad safna allre hiørdunne þangad, og vellta so steinenum af brunnenum, og vøtnudu fenu, løgdu sídann steinenn aptur yfer brunns munnann sem hann lá ádur.

4. Og Jacob sagde til þeirra, kærer brædur! hvadann erud þer? Þeir svørudu, ver erum af Haran.

5. Hann sagde til þeirra, þecked þer eigi Laban Nahors son? Þeir svørudu, iá, vel þeckium ver hann.

6. Hann sagde, geingur hønum vel? Þeir svørudu, vel geingur hønum, siá, þar kemur hans dotter Rachel med hans saude.

7. Þá mællteJacob, mikid er enn dags epter, og er ei mál ad reka fed heim, vatned saudunum, fared sídann ad beita þeim.

8. Þeir svorudu, ver meigum eigi fyrr enn øll hiørdenn kemur til samans, so ver getum vellt steinenum fra brunnenum, og vatnad so saudunum.

9. Og sem hann rædde þetta vid þá, kom Rachel med saude síns føðurs, þvi hún gætte þeirra.

10. Enn sem Jacob sá Rachel dotter Labans síns modurbrodurs, og saude Labans síns modurbrodurs, fór hann til, og vellte steinenum af munna brunnsins.

11. Og vatnade saudum Labans modurbrodurs síns, hann mynntest vid Rachel og gret hátt.

12. Og sagde henne, ad hann være hennar føðurs broder, Rebecku son, enn hún hlióp og sagde þetta sínum fødur.

13. Enn sem Laban heyrde um Jacob sinn systur son, rann hann út á móte hønum, og tók hann ser í fáug, og mynntest til hans og fylgde hønum inn í sitt hús.

14. Þá kunngerde hann Laban allt þetta efne. Þá sagde Laban til hans, nú vel, þú ert mitt bein og holld. Og sem hann hafde nú vered med hønum einn mánud.

15. Þá sagde Laban til Jacobs, þo ad þú sert minn broder, skyllder þú fyrer þvi þióna mer fyrer eckert? seig þú til, hvad þitt verdkaup skal vera.

16. Laban átte tvær dætur: sú elldre het Lea, enn hin yngre het Rachel.

17. Lea var augndøpur, enn Rachel var væn og fríd.

18. Og Jacob feck elsku til Rachelar, og sagde, eg vil þiona þer í siø ár fyrer Rachel, þína yngre dottur.

19. Laban svarade; Pad er betra eg gefe þer hana, helldur enn einum ødrum: vertu hiá mer.

20. So þionade Jacob í siø ár fyrer Rachel, og syndest hønum sem fáer dagar være. So mikla ást hafde hann á henne.

21. Epter þad sagde Jacob til Laban, gef mer nu mína kvinnu, þviad tímenn er nú komenn, ad eg skule ganga ínn til hennar.

22. Þá baud Laban øllu folke í þeim stad, og gerde brúdkaup.

23. Enn um kvøllded tók hann sína dottur Lea, og leidde hana ínn til hans, og hann lá hiá henne.

24. Og Laban gaf Lea sinne dottur sína Pionustu stúlku Silpa henne til ambáttar.

25. Enn um morgunenn, siá, þá var þad Lea. Þá sagde hann til Labans. Hvar fyrer hefir þú so gert vid mig? hefi eg eigi þionad þer fyrer Rachel? Pvi hefir þú so sviked mig?

26. Laban svarade, Pad er eigi sidur í voru lande, ad þær enu yngre seu útgefnar fyrr enn þær elldre.

27. Halltu út vikuna med henne, so vil eg einnenn gefa þer adra, fyrer þá þionustu, sem þú skallt þiona mer enn í ønnur siø ár.

28. Jacob gerde so, og hellt þá viku út. So gaf hann hønum Rachel sína dottur til húsfru.

29. Og hann gaf Rachel sinne dottur ambátt sína Bilha til ambáttar.

30. So geck hann líka ínn til Rachelar, og elskade hana meir enn Lea, og þionade hiá hønum ønnur siø ár fyrer hana.

31. Enn er Drottinn sá, ad Lea var fyrerlitenn, þá gerde hann hana ávaxtarsamlega, enn Rachel var óbyria.

32. Og Lea vard ólett, og fædde einn son, og kallade hann Ruben, og sagde, Drottinn hefir sed til minnar eymdar; nú mun minn madur elska mig.

33. Og hún vard enn í annad sinn ólett, og fædde einn son, og sagde; Drottinn hefir heyrt, ad eg em forsmád, og hefir gefed mer og so þennann: og hún nefnde hann Simeon.

34. Og enn aptur vard hún ólett, og fædde einn son, og sagde; nu skal minn madur hallda sig aptur til mín, þvi eg hefe fædt hønum þriá sonu, og þvi kallade hún þann sama Levi.

35. Sídann vard hún í fiorda sinn ólett, og fædde einn son, og sagde, nú vil eg þacka Drottne. Þar fyrer kallade hún hann Juda; og hún let af ad eiga børn.

## 30. Capitule.

1. Sem ad Rachel sá ad hún átte eigi børn vid Jacob, þá hatade hún sína systur, og sagde til Jacobs, gef þú mer børn: se annars, þá mun eg deya.

2. Um þetta vard Jacob miøg reidur vid Rachel, og sagde, eige em eg Gud, sem eigi vill gefa þer ávøxt þíns kvidar.

3. Þá sagde hún; siá, Þar er mín ambátt Bilha, legstu med henne, so hún meige fæda á mit skaut, so eg meige verda uppbyggd af henne.

4. Og hún gaf hønum sína ambátt Bilha til kvinnu. Og Jacob lagdest med henne.

5. Og hún vard ólett, og fædde Jacob einn son.

6. Þá sagde Rachel; Drottinn hefir dæmt mína søk, og heyrt mína raust, og gefed mer einn son, og þvi kallade hún hann Dan.

7. Í annad sinn vard Bilha Rachels ambátt ólett, og fædde Jacob annann son.

8. Þá sagde Rachel, Gud hefir skipt um med mer og minne systur, ad eg geing nu yfer hana, og kallade hann Nephthali.

9. Sem Lea sá nú, ad hún let af ad eiga børn, þá tók hún sína ambátt Silpa, og gaf hana Jacob til eigennkvinnu.

10. So fædde Silpa Leæ ambátt Jakob einn son.

11. Þá sagde Lea, tyadur, og kallade hann Gad.

12. Þar epter fædde Silpa Leæ ambátt Jacob einn annann son.

13. Þá sagde Lea, sæl em eg, þvi dæturnar skulu prísa mig sæla ad vera. Og hún kallade hann Asser.

14. Og Ruben geck þangad sem menn voru ad hyrda hveite, og fann dudaím á akrenum, þad bar hann heim til sinnar modur Lea. Þá sagde Rachel til Lea, gef mer nockud af dudaim þíns sonar.

15. Hún svarade; er þer þad eigi nog, ad þú hefir teked minn mann frá mer, og nu villtu taka míns sonar dudaim? Rachel svarade, nu vel, láttu hann sofa hiá þer í nott fyrer dudaim þíns sonar.

16. Og sem Jacob kom heim ad kvølldе af akre, þá geck Lea út í mot hønum, og sagde; Þú skallt sofa hiá mer í nott, Þviad eg hefe keypt þig fyrer míns sonar dudaim. Og so svaf hann hiá henne þá nott.

17. Og Gud bænheyrde Leam, og hún vard þungud, og fædde Jacob þann fimmta son.

18. Og sagde, Gud hefir launad mer, fyrer þad eg gaf mína ambátt mínum manne, og þann kallade hún Isachar.

19. Og Lea vard enn þungud, og fædde Jacob þann siötta son.

20. Og sagde, Gud hefir vel forsed mig, og nu mun minn madur aptur búa vid mig, þvi eg hefe fædt hønum sex sonu, og hún nefnde hann Sebulon.

21. Epter þetta átte hún eina dottur, hana nefnde hún Dina.

22. Drottinn minntest þá á Rachel og bænheyrde hana, og gerde hana ávaxtarsama.

23. Og hún vard þungud, og fædde einn son, og sagde, Gud hefir burtteked mína smán.

24. Hún nefnde hann Josepһ, og sagde; Drottinn gefe mer nu einn annann son til þessa.

25. Sem Rachel hafde fædt Joseph, þá sagde Jacob til Laban, lát mig nú fara burt til míns samastadar í mitt land.

26. Og gef mer mínar kvinnur og børn, hvar fyrer eg hefe þionad þer, ad eg meige nú ferdast, þvi þú veist hvernenn eg hefe þionad þer.

27. Þá svarade Laban hønum, lát mig finna nád fyrer þínum augum, af reynslu hef eg numed, ad Drottinn blessar mig fyrer þínar saker.

28. Enn þú ákvarda sialfur hvert verkkaup ad eg skal gefa þer.

29. Jacob svarade hønum; Þú veist, hvørsu eg hefe þionad þer, og hvad fyrer fe þú átt under mer.

30. Þú átter lited ádur eg kom hingad, enn nu er þad margfalldlega útbreidt, og Drottinn hefir blessad þig fyrer minn fót. Og nú, nær skal eg og so forsorga mitt eiged hús?

31. Hann svarade; hvad skal eg þá gefa þer? Jacob mællte, Þú skallt ecki gefa mer: enn ef þú villt gera þad sem eg seige þer, þá vil eg enn frammveigis fæda og geyma saude þína.

32. Eg vil í dag ganga í gegnum alla þína hiørd, og fraskilia allt fleckott og mislitt fe, og alla svarta saude á medal lambanna, og þær

fleckottu og misslitu geitur, hvad þá þar epter verdur fleckott og misslitt, þad skal vera mitt verkkaup.

33. So skal mín rettvíse vitne bera mer í dag eda morgun, þegar þar kemur, ad eg skal taka mit verkkaup af þer, so ad hvad sem eigi er fleckott, eda misslitt, eda eigi verdur svart, á medal lambanna og geitgnna, þá skal þad vera stuldur hiá mer.

34. Þá sagde Laban, siá, þad skal so vera, sem þú hefir sagt.

35. Og þann sama dag skilde hann fra alla fleckotta og misslita hrúta, og alla fleckotta og misslita geitsaude, þar sem nockurstadar fanust hvítur fleckur uppá, og allt þad sem var svart, á medal lambanna, þetta afhendte hann sínum sonum í hendur.

36. Og hann let þriggia daga leid vera í millum sín og Jacobs. So geymde Jacob Labans hiørd, þad sem ad afgangs var.

37. Enn Jacob tók ser stafe af grænu popeltre, harsivide og castaniu tre, og skof hvítar ráker þar uppá.

38. Og lagde so stafena, sem hann hafde skafed børkenn af, í vatnsrennurnar, so ad þad hvíta á stofunum var bert fyrer hiørdenne, sem þangad hlaut ad koma til ad drecka, ad hún skyllde fá lamba í þvi bile, nær hún kæme ad drecka.

39. Og so feck hiørdenn lamba upp yfer stofunum, og fædde fleckott, og misslitt.

40. So frásskillde Jacob lømbenn, og skickade þá frásskildu hiørd til þeirrar fleckotttu og svørtu í Labans hiørd, og gerde ser sialfum eina serdeilis hiørd, og let hana eigi koma saman vid Labans hiørd.

41. Enn þegar hiørdenn geck snemma, þá lagde hann stafena í rennurnar, fyrer augu hiardarennar, so ad hún skyllde fá í þvi bile, er hún horfde á stafena.

42. Enn fyrer þær sem sídla gengu, lagde hann þá eigi. So vard Labans þad sem sídbored var, enn Jacobs þad snemmborna.

43. Og af þessu vard madurenn stor-audugur, so ad hann hafde fiølda sauda, ambátter og þræla, ulfallda og asna.

## 31. Capitule.

1. Og Jacob heyrde ord Labans sona, þeir ed søgdu, Jacob hefir komest yfer aleigu vors fødurs, og af vors fødurs eige er hann so vellríkur ordinn.

2. Jacob sá og á Labans yferbragde, og siá, þad var eigi so vid hann, sem í giær og fyrra dag.

3. Þá sagde Drottinn til Jacobs, hverf aptur í þitt fostur land, og til þinnar ættar, eg vil vera med þer.

4. Þá sende Jacob, og let kalla þær Rachel og Lea út á mørkena, þar hans hiørd var, og sagde til þeirra.

5. Eg se ad yckar fødurs yferbragd er eigi vid mig so sem þad var í giær og í fyrra dag, enn Gud míns fødurs hefir vered med mer.

6. Og þid vited, ad eg hefe þionad yckrum fødur af øllu mínu megne.

7. Og hann hefir svikid mig, og tíusinnum hefir hann skipt um mín laun, enn Gud hefir eigi lofad hønum ad gera mer skada.

8. Þá hann sagde, þad fleckotta skal vera þitt verkkaup: þá fædde øll hiørdenn fleckott lømb; og þá hann sagde, þad misslita skal vera þitt verkkaup, þá fædde øll hiørdinn misslitt.

9. So hefir Gud teked fra yckar fødur hans eign og gefed mer.

10. Þviad nær tímenn kom ad

berfed skylldе fá lambanna, upplypte eg mínum augum, og eg sá í svefne, og siá þú, ad fleckotter, dílotter og misliter hrútar stuku upp á hiørdena.

11. Og Guds engell sagde til mín í svefne, Jacob! og eg svarade, her em eg.

12. Enn hann sagde, lát upp þín augu og siá, ad þeir fleckottu, dílottu og mislitu hrútar støckva upp á hiørdena. Þvi eg hefe sed allt þad sem Laban hefir gert þer.

13. Eg em sa Gud í Beth=el, þar sem þú smurder steinenn, og gerder mer þar eitt heite, tak þig nu upp, og far burt af þessu lande, og hverf aptur til þinnar ætt=jardar.

14. Þá svørndu þær Rachel og Lea, og søgdu til hans, vid eigum nu enga deilld, eda nockurn arf epter í ockar føðurs húse.

15. Hefir hann eigi hallded ockur so sem annarlegar? Þviad hann hefir sellt ockur, og eydt ockar verde.

16. Þar fyrer hefir Gud teked vors føðurs ríkdom, og gefed ockur og ockar børnum, gior nu allt þad sem Gud hefir boded þer.

17. Jacob tók sig upp, og sette sín børn og kvinnur upp á ulfallda.

18. Og hafde í burt allar sínar hiarder, og alla þá fiárhlute sem hønum høfdu afllast í Mesopotamia, ad hann fære til síns føðurs Isaacs, í Canaans land.

19. (Enn Laban var geingenn ad klippa saude sína) og Rachel stal í burt skúrgodum síns føðurs.

20. So stal Jacob hiarta Labans híns syrlendska, í þvi, ad hann sagde hønum eigi, ad hann flyde.

21. So flúde hann í burtu þadann med øllu þuí hønum tilheyrde, tók sig upp, og fór yfer um flióted, og sette sína leid til fiallsins Gilead.

22. A hinum þridia deige þar epter frette Laban, ad Jacob var í burt flúenn.

23. Og hann tók sína brædur til sín, og fór epter hønum siø dagleider, og náde hønum á fiallenu Gilead

24. Enn Gud kom til Labans þess syrlendska, um nottina í svefne, og sagde til hans, varast þú ad tala annars vid Jacob enn vinsamlega. Og Laban nálgadest Jacob.

25. Enn Jacob hafde sett sínar tiálldbúder á fiallenu. Laban sette sín tiølld þar med sínum brædrum, á sama fialle Gilead.

26. Þá sagde Laban til Jacobs, hvad hefir þú gert, ad þú stalst mínu hiarta og burtflutter mínar dætur, líka sem þær hefdo verid herteknar med sverde?

27. Hvar fyrer flúder þú so heimuglega? og stalst þig so í burt, og sagder mer þad eigi ádur, so ad eg hefda mátt fylgia þer á leid med fagnade, med saungleik, bumbum og hørpum?

28. Þú letst mig eige helldur mynnast vid mín børn og dætur, nu, þu hefir gert fávíslega.

29. Og eg hefe so mikla magt, ad eg get vel gert þer íllt, enn ydars føðurs Gud sagde til mín í giær, varast þú ad mæla vid Jacob annad helldur enn vinsamlegt.

30. Og epter þvi þú villt eigi annad enn á burt fara, og þig langar so miøg heim til þíns føðurs húss, þvi hefir þú þá stoled mínum godum?

31. Jacob svarade og sagde til Labans, eg uggda, og hugsade ad þú munder slíta þínar dætur fra mer.

32. Enn hiá hverium þú finnur þín god, hann skal her deya fyrer vorum brædrum. Leitadu þíns hiá mer, og tak þad burt (enn Jacob visse eige ad Rachel hafde burt stoled þeim.)

33. Þá geck Laban inn í Jacobs tialld, og í tialld Lea, og í beggia ambáttanna tialldbúd, og fann eckert. Og hann geck úr Lea tiallde, og í tialld Rachelar.

34. Þá tók Rachel godenn og lagde þau under strábreidu ulfaldanna, og settist þar'á ofan. Enn Laban rannsakade allt tiallded og fann eigi þar.

3 . Þá mællte hún til síns fødurs, minn Herra, reidst mer eigi, þó eg gete eigi rísed upp í mote þer, þviad kvennleg edlis sótt er komenn ad mer. Og hann fann eigi godenn, hversu miøg sem hann rannsakade.

36. Þá reiddest Jacob, deillde á Laban, og sagde til hans, hvad hefi eg misgert edur broted, ad þú ert mer so gramur?

37. Þú hefir rannsakad alla mína búshlute, hvad hefir þú nu her funded af allre þinne eign? legg þad her framm fyrer mína og þína brædur, ad þeir dæme á millum ockar.

38. Eg hefe vered hiá þer í tuttugu ár, þíner sauder og geitur þínar hafa eigi vered ófríofar, hrúta hiardar þinnar hefi eg eigi eted.

39. Hvad sem rífed var af dýrunum bar eg eigi heim til þín, helldur hlaut eg þad ad bitala, og þú krafder þess af minne hende, hvert þad var helldur stoled á nottu eda deige frá mer.

40. Eg vanmegnadest um daga af hita, enn um nætur af kulda, og þar kom eingenn svefn á mín augu.

41. So hefi eg nu þesse tuttugu ár þionad í þínu húse, fiortan ár fyrer þínar dætur, og sex ár fyrer þína hiørd. Og þú hefir tíusinnum skipt um mitt verkkaup.

42. Hefde eigi míns fødurs Gud, Abrahams Gud, og Isaacs ótte, hallded med mer, þá hefder þú láted mig snaudann frá þer fara. Enn Gud leit á mína neyd og mína mædu, og hann straffade þig í giær.

43. Laban svarade, og sagde til Jacobs, þessar dætur eru mínar dætur, og þesse hiørd er mín hiørd, og allt þad þú ser, þad er mitt, hvad kann eg gera mínum dætrum í dag eda þeirra børnum, sem þær hafa fædt?

44. So kom nu, látum ockur gera einn sáttmála, mig og þig, sem skal vera til eins vitnisburdar millum mín og þín.

45. Þá tók Jacob einn stein, og reiste hann upp til eins merkis.

46. Og hann sagde til sinna brædra, safned steinum samann. Og þeir báru steina samann, og gerdu eina griót-hrúgu, og þeir snæddu á þeirre hrúgu.

47. Og Laban kallade hana Jegar Sahadutha, enn Jacob kallade hana Gilead.

48. Þá sagde Laban, þesse steinhrúga skal vera einn vitnisburdur í millum mín og þín, þar fyrer kallast hún Gilead og Mizpah.

49. Þvi hann sagde, Drottinn hann skode millum mín og þín, nær vid skilium her.

50. Ef þu gerer mínum dætrum nockud grand, edur ef þú tekur þer adrar kvinnur ad auk minna dætra. Her er eingenn madur hiá ockur, enn siá þú, Gud er vitned millum mín og þín.

51. Og Laban sagde enn framar meir til Jacobs; siá, þad er sú steinhrúga, og þad er þad merke sem eg hefe uppreist millum mín og þín.

52. Su sama steinhrúga skal vera vitne, og þad teikn skal vera vitne, ef eg fer her yfer til þín, eda þú til mín, yfer þessa steinahrúgu og þetta merke, til ad gera skada.

53. Abrahams Gud, og Nahors

Gud, þeirra forfedra Gud skal vera domare millum ockar. Og Jacob fór hønum eyd, vid síns fødurs Isaacs ótta.

54. Og Jacob færde fórner á fiallenu, og baud sínum brædrum til snædings, og sem þeir høfdu matar neytt, voru þeir þar uppá fiallenu um nottena.

55. Arla morguns stod Laban upp, og mynntest vid sín børn og sínar dætur, og blessade þau, og fór í burt, og kom heim aptur til síns stadar.

1. Enn Jacob fór leid sína, og Guds englar mættu hønum.

2. Og sem hann sá þá, sagde hann, þeir eru Guds herlid, og kallade þann sama stad Mahanaim.

## 32. Capitule.

3. Jacob sende bod undann ser til móts vid Esau brodur sinn, í landed Seir, í þvi heradeEdom.

4. Og hann baud þeim og sagde, seiged so mínum Herra Esau, þinn Þenare Jacob lætur seigia þer, eg hefe til þessa vered leinge utan lands mek Laban.

5. Og hefe uxa og asna, saude, Þræla og ambátter, og sende eg nu til fundar vid þig, ad eg villda kunngera þetta mínum Herra, so eg mætte finna nád fyrer þínu auglite.

6. Sem menn komu aptur tilJacobs, og søgdu; ver komum til þíns brodurs Esau, hann fer í móte þer med fiøgur hundrud manns.

7. Þá óttadest Jacob hardla miøg, og vard miøg kvídande. Og hann skipte í tvo fiade sørunegte sínn, sem med hønum var, og nautum og saudum og ulføldum í tvær fylkingar.

8. Og hann sagde; ef Esau kemur til eins flockssins, og drepur hann þá má sá annar flockurenn komast undann.

9. Og enn sagde Jacob, Drottinn míns fødurs Abrahams Gud, og míns fødurs Isaacs Gud! þú sem hefir sagt til mín, far aptur í þitt land, og til þinnar ættar, eg vil gera þer godt.

10. Minne er eg allre þeirre miskun, og øllum þeim sannleika sem þú hefir veitt þínum Þenara (þvi eg hafda eigi meir enn þennann staf, þá eg fór yfer um þessaJordan, enn nu er eg ordenn ad tveimur fylkingum.)

11. Frelsa mig fra míns brodurs hende, frá hende Esau, þvi eg hrædunst fyrer hønum, ad hann mune koma og slá mig, mædurnar, og so børnenn.

12. Þú hefir sagt, eg vil veita þer velgerninga, og gera þitt sæde so sem sióar sand, hver ed eigi verdur talenn fyrer fiølda saker.

13. Og hann var þar um nottena, og tók af þvi, sem hann hafde hiá ser, gáfur, til handa sínum brodur Esau.

14. Sem var tvø hundrud geitur, tuttugu kiarnhafrar, tvøhundrud ásaudár, tuttugu hrútar.

15. Og þriatíu mylker ulfalldar med þeirra folølldum, fiørutíu kyr, og tíu uxar, tuttugu øsnur med tíu fylum.

16. Og hann feck þetta í hendur sínum Þenúrum, iá, hveria hiørd ser í lage, og sagde til þeirra, fared undann mer, og láted vera bil í millum hiardanna.

17. Og hann baud þeim fyrsta og sagde; þegar minn broder Esau mæter þer, og spyr, hverium heyrer þú til? og hvert villt þú fara? eda hver á þetta, sem þú rekur undann þer?

18. Þá skalltu seigia; þetta heyr-

er til þínum Þenara Jacob, og hann sender sínum Herra Esau þetta til einnrar gáfu, og hann kemur her siálfur epter oss.

19. Líka so skipade hann hinum ødrum, og so þeim þridia, og so øllum þeim sem fylgdu hiørdinne, og sagde, þer skulud seigia til Esau, þá þer mæted hønum, so sem eg hefe bodid ydur.

20. Seiged, og einnenn so, siá, þinn Þenare Jacob fer her epter oss. Þvi hann þeinkte; eg vil blídka hann med þessum gáfum, sem fara undann mer: þar epter vil eg siá hann: ske má ad hann taki í móte mer blídlega.

21. So fóru gáfurnar undann hønum, enn hann var þá sømu nott hiá sínum flocke.

22. Og hann stód upp um nottena, og tók badar sínar eigenn konur, og þær tvær ambátter, og sín ellefu børn, og fór til vadsins Jaboc.

23. Tók þau, og færde þau yfer um vatnsfallid, so ad yferum komst allt hvad hann hafde.

24. Og hann var epter alleina. Þá seckst madur nockur vid hann, allt til þess ad dagur var.

25. Og sem hann sá ad hann gat eigi yferunned hann, tók hann so hardt á samteingingu lærlidsins, ad lærbeined geck ur lide í þvi þá hann feckst vid hann.

26. Og hann sagde, lát mig fara, þvi nú rennur upp dagsbrún; hann svarade, eigi mun eg láta þig lausann, nema þú blesser mig.

27. Hann sagde, hvad heiter þú? hann svarade, Jacob.

28. Hann sagde, eige skalltu leingur kallast Jacob, helldur Israel. Þviad þú hefir stridt vid Gud og mann, og feckst sigur.

29. Og Jacob spurde hann ad, og sagde, seig þú mer, hvad heiter þú? hann svarade, þvi spyr þú epter mínu heite? og hann blessade hann, í þeim sama stad.

30. Og Jacob kallade þann stad Pniel, þviad eg hefe sed Gud fra andlite til andlits, og mín ønd er frelst.

31. Og er hann kom yfer um fra Pniel, þá rann hønum sol upp. Og hann var halltur í lærenu.

32. Þar fyrer eta eigi Israels syner aslsinar (í lærenu) allt til þessa dags, þvi þá hrørnudu aslsinar í lære Jacobs.

## 33. Capitule.

1. Jacob lypte sínum augum upp, og sá sinn brodur Esau komanda med fiøgur hundrud manns. Hann skipade sínum sonum til Lea, og til Rachel, og til beggia þeirra ambátta.

2. Og hann skickade ambáttunum og þeirra sonum fremst, þar nærst Lea med sínum børnum, enn Rachel seinast med Joseph.

3. Og hann geck framm undann þeim, og fell siøsinnum til jardar, þar til hann kom til síns brodurs.

4. Esau rann í móte hønum og tók hann í fáng ser, lagde hendur um háls hønum og kyste hann, og þeir gretu báder.

5. Og hann lypte sínum augum upp, sá kvinnurnar med børnunum, og sagde; hvada folk er þetta sem med þer er? hann svarade, þetta eru børn þau sem, Gud hefir gefed þínum þenara.

6. Og ambátternar gengu framm med sínum børnum, og lutu hønum.

7. Lea geck og framm med sínum børnum, og laut hønum, þar epter geck Joseph og Rachel framm, og lutu hønum líka.

8. Og hann sagde, hvad villtu

med allann þann flock sem kom á móte mer? hann svarade, ad eg meige finna nád fyrer mínum Herra.

9. Esau sagde, minn broder, eg hefe nóg, hafdu sialfur þína eign.

10. Jacob svarade, eige so, hafe eg nu funded nád fyrer þer, þá medtak nu þessa gáfu af minne hende, þvi eg sá þína ásionu, líka sem eg hefde sed Guds ásionu, og lát þer þetta vel þocknast af mer.

11. Og tak þessa blessan af mer, sem eg hefe fært þer, þvi Gud gaf mer þad, og eg hefe alldeilis nóg epter; so neydde hann hann þar til, ad hann medtok þad.

12. Og hann sagde, látum oss fara áfram og ferdast, eg vil fylgiast ad med þer.

13. Enn Jacob svarade hønum, minn Herra! þú ser vel, ad eg hefi ung børn medferdis, þar til med se og nybærar kyr ef so skedur nu, ad þetta være reked til þrautar á einum deige, þá mun øll hiørdenn deya fyrer mer.

14. Minn Herra ferdest undann sínum þenara, eg vil reka so hægt á epter, so sem fed og børnenn geta geinged, þar til ad eg kem til míns Herra í Seir.

15. Esau svarade, þá vil eg þo láta epter hiá þer nockra af þessum mønnum sem eru med mer; hann svarade, hvad gerest þess þørf? lát mig alleinasta finna nád fyrer mínum Herra.

16. So ferdadest Esau þann sama dag aptur, þann retta veg til Seir.

17. Og Jacob fór til Suchoth, og bygde ser þar eitt hús, gerde og hreise handa sínum fenade, og þvi kallast sa stádur Suchoth.

18. Epter þad fór Jacob til Salem, í þá Borg Sichems, sem liggur í Canaans lande, þá hann var komenn af Mesopotamia, og hann sette sína bygd utann stadar.

19. Og keypte eitt líted akurland af børnum Hemors, føddurs Sichems, fyrer hundrad silfur peninga, hvar hann sette sína tialldbúd.

20. Og uppbygde þar eitt alltare, og ákallade þar nafn þess sterka Guds Israel.

## 34. Capitule.

1. Dina dotter Lea, hveria hún fædde Jacob, geck út, ad siá þess lands dætur.

2. Enn sem ad Sichem sonur Hemor Hevita þess lands høfdingia, sá hana, tók hann hana med vallde, og lá med henne.

3. Og hans hugur hneigdest miøg til hennar, og hafde hana hardla kæra, og talade vinsamlega vid hana.

4. Og Sichem sagde til síns fødur Hemor, tak mer þessa stulku til ægtakvinnu.

5. Sem Jacob fornam ad hans dotter Dina var óscæmd, enn hans syner voru á akre med sínar hiarder, var Jacob hliodur um þetta, þar til þeir komu heim.

6. Þá geck Hemor fader Sichems út og fann Jacob, og talade vid hann.

7. Og í þvi bile komu Jacobs syner af akre, og sem þeir heyrdu hvad sked hafde, styggdust mennerner þar vid, og urdu miøg reider, ad hann hafde framed soddann heimsku í Israel, og óscæmt Jacobs dotter, þvi þad var eigi hæfelegt.

8. Þá talade Hemor vid þá og sagde; Sichem sonur minn þráer miøg epter ydar dottur: eg bid ad þer gefed hønum hana til eigennkonu.

9. Gerum mægder vor á mille, gifted oss ydar dætur, og taked ydur til handa vorar dætur.

10. Og búed hiá oss, landed skal vera oped fyrer ydur, búed her, kauped og seled, útveiged ydur stadfestu her.

11. Og Sichem sagde til hennar fødurs og heunar brædra, láted mig finna nád hiá ydur.

12. Eg vil gefa ydur hvad þer uppá seted, æsked ad eins fríelega af mer bæde morgungáfu og tilgiafar, eg vil gefa ydar hvad þer hafa viled, gefed ad eins stulku þessa í mitt valld mer til eigennkvinnu.

13. Þá svørudu Jacobs syner Sichem, og hans fødur Hemor, med underhyggiu, søkum þess ad þeirra syster Dina var óscemd, og søgdu til þeirra.

14. Eige meigum ver þad gera, ad gipta nockrum manni vora syster, þeim sem eigi er umskorenn, þvi þad er oss vanvirda.

15. Enn þo vilium ver vera ydur til vilia, ef þer viled verda oss líker, og láta umskera allt karlkins ydar á millum.

16. Þá vilium ver gipta ydur vorar dætur, enn taka oss til handa ydar dætur, og búa hiá ydur, og ver vilium vera so aller einn lydur.

17. Enn viled þer eigi viliuglega láta umskera ydur, þá vilium ver taka vora dotter, og fara í burt.

18. Þesse ræda líkade Hemor og hans syne vel.

19. Og sveinnenn tafde eigi ad gera þad, þvi hann hafde stóra áſt á dottur Jacobs. Enn hann var ágiætastur halldenn allra í síns fødurs húse.

20. So komu þeir nú Hemor og hans sonur Sichem til borgarhlidsins, og tøludu vid borgarmenn sína og søgdu.

21. Þesser menn eru fridsamleger hiá oss, og vilia búa í þessu lande, kaupa og selia, so er nu landed nogu vídt fyrer þá, ver vilium taka þeirra dætur oss til eigennkvenna, og gipta þeim vorar dætur.

22. Enn í þan máta vilia þeir vera oss til vilia, ad búa hiá oss, og vera eitt folk med oss, ef ver viliumumskera allt karlkins á medal vor, líka so sem þeir eru umskorner.

23. Þeirra fe og fiárhluter og allt þad þeir hafa, verdur vort, ef ver eins kostar vilium gera þeim þetta til vilia, so ad þeir búe hiá oss.

24. Og þeir hlyddu Hemor og Sichem hans Syne, aller þeir sem geingu út og ínn ad hans stadar borgarhlidum. Og þeir umskaru allt karlkins, sem geck út og ínn um hans stad.

25. A þeim þridia deige, er þeim var sem vidkvæmast, þá tóku þeir tveir syner Jacobs, Simeon og Levi, brædur Dina, hver sitt sverd, og geingu diarflega í stadenn, og drápu alla karlmenn.

26. Og þeir drápu eirnenn Hemor og hans son Sichem med sverds eggum, og høfdu burt Dinam sína syster af húse Sichem, og geingu í burt.

27. Þá komu Jacobs syner yfer þá sem slegner voru, og ræntu borgena, søkum þess ad þeir høfdu óscemt þeirra systur.

28. Og tóku þar naut þeirra og saude, asna, og hvad þar var í borgenne, og á økrunum, og allt þeirra gots.

29. Oll børn og kvinnur tóku þeir ad herfánge, og ræntu øllu þvi, sem var í húsunum.

30. Þá sagde Jacob til Simeon og Levi, þid hafed stofnad mer til ólucku, og gert mig ílla lycktande vid þessa lands innbyggiara, sem eru Cananei og Pheresei, ver erum fáer, nær sem þeir saman safnast í móte mer, þá slá þeir mig í hel, so verd eg afmádur og mitt hús.

31. Þeir svørudu, skylldu þeir hafa þá breitt vid vora systur so sem vid adra portkonu?

## 35. Capitule.

1. Og Gud sagde til Jacob, tak þig upp, og far til Bethel, og bú þú þar, og bygg þú þeim Gud þar eitt alltare sem vitradest þer, þá þú flyder fyrer þínum brodur Esau.

2. Þá sagde Jacob til síns húss, og til allra þeirra sem med hønum voru, kasted burt þeim annarlegum gudum sem þer hafed hiá ydur, og hreinsed ydur, og skipted um ydar klædnad.

3. Tøkum oss upp, og førum í Bethel, so eg meige byggia þeim Gude þar eitt alltare, sem bænheyrde mig í minne mótgangs tíd, og hefir vered med mer á þeim veige sem eg hefe fared.

4. So gáfu þeir hønum i hendur alla framande Gude, sem þeir høfdu under sínum høndum, og so þeirra eyrna speingur. Og hann gróf þau nidur under eina eik sem stod hiá Sichem.

5. So ferdudust þeir burt, og þar kom hrædsla af Drottne yfer alla þá stade sem þar láu umhversis, so þeir soktu þá eigi epter Jacobs sonum.

6. So komst Jacob til Lus í Canaans lande, sem kallast Bethel, og allt þad folk sem var med hønum.

7. Og hann byggde þar eitt alltare, og kallade þann sama stad Elbethel, þviad Gud byrtest hønum þar, þá hann flyde fyrer sínum brodur.

8. Þá andadest Debora fostra Rebecku, og vard jørdud fyrer nedann Bethel, under einne eik, sem var køllud grát-eik.

9. Og Gud byrtest Jacob í annad sinn, sídann hann vár komenn af Mesopotamia, og blessade hann.

10. Og sagde til hans, þú kallast Jacob. Enn þu skallt eigi her epter nefnast Jacob, helldur skalltu heita Israel, og sídann kalladest hann Israel.

11. Og Gud sagde til hans, eg em almáttigur Gud, vertu ávagstarsamur og margfallda þig. Þioder og Þióda hópur skal koma af þer, og kongar skulu koma af þínum lendum.

12. Og þad land sem eg hefe gefed Abraham og Isaac, vil eg gefa þer, og eg vil gefa þad þínu sæde epter þig.

13. So fór Gud upp frá hønum ur þeim stad sem hann talade vid hann.

14. Jacob uppreiste þar einn steinstolpa í þeim stad, þar Gud talade vid hann, og jós dryckiar offre þar uppá, og hellte þar yfer vidsmiøre.

15. Og Jacob kallade þann stad þar Gud talade vid hann, Bethel.

16. Og þeir ferdudust frá Bethel, og sem þeir voru komner hardt nærre Ephrat þá fædde Rachel.

17. Og hún komst hardla miøg vid í barnburdenum. Og sem hún þiakadest so þunglega í barnburdenum, sagde lióssmodurenn til hennar, óttast þú eigi, þvi þennann son skalltu og hafa.

18. Og sem øndenn geck upp af henne, og hún hlaut ad deya, þá kallade hun hann Benoni, enn hans fader kallade hann Benjamin.

19. So andadest Rachel, og var jørdud á veigenum til Ephrat, sem nu kallast Bethlehem.

20. Enn Jacob sette upp eitt merke yfer hennar grøf, og þad er merke yfer leide Rachel, allt til þessa dags.

21. Og Israel ferdadest þadann, og sette sína tialldbúd á hina sídu turnsins Eder.

22. Og þad skede, þá ad Israel bió þar í landenu, þá geck Ruben burt, og svaf med Bilha síns fødurs hiákvinnu, og þad spurde Israel. Jacob átte tolf konur.

23. Syner Lea voru þesser, Ruben, sá frumgetne sonur Jacobs, Simeon, Levi, Juda, Isaschar og Zabulon.

24. Rachels syner voru Joseph og Benjamin.

25. Syner Bilha Rachels ambáttar voru Dan og Nephthali.

26. Syner Silpa, Lea ambáttar voru þeir Gad og Asser. Þesser eru syner Jacobs, sem hønum voru fædder í Mesopotamia.

27. Og Jacob kom til síns fødurs Isaac í mamre, í þeim høfudstad sem kallast Hebron, þar sem Abraham og Isaac høfdu vered framande.

28. Og Isaac vard hundrad og átta tíu ára gamall.

29. Og hann veikktest, og andadest, og safnadest til síns folks, gamall og saddur af þessu life. Og hans syner Esau og Jacob jørdudu hann.

## 36. Capitule.

1. Þetta er Esau ættkvísl, sem nefndest Edom.

2. Esau tók ser kvinnu af Canaans dætrum, Ada dotter Elons Hethei, og Ahalibama dotter Ana, sem var barns barn Zibeons Hevitei.

3. Og Basmath Ismaels dotter Nebajoths syster.

4. Og Ada fædde Esau Eliphas. Enn Basmath fædde Reguel.

5. Ahalibama fædde Jehus, Jaelam og Korah, þessu eru Esaus børn, sem hann átte í Canaans lande.

6. Og Esau tók sínar kvinnur, sonu og dætur, og þær allar sáler sem voru í hans húse, sinn búsmala, og allt sitt kvikfe, og alla þá fiárhlute sem hønum høfdu aflast í Canaans lande, og fór í eitt land frá Jacob sínum brodur.

7. Þvi þeirra audæfe voru so mikel, ad þeir máttu eigi búa til samans, og þad land, í hvøriu þeir voru framande, bar þá eigi fyrer søkum fiølda hiardar þeirra.

8. Og Esau bio á fiallbygdum Seir, og Esau er Edom.

9. Þetta er ættkvísl Esau, af hverum Edomitar eru komner, á fiallenu Seir.

10. Og þetta er heite Esau barna, Eliphas son Ada, kvinnu Esau. Reguel son Basmath kvinnu Esau.

11. Enn þesser voru Eliphas syner, Theman, Oman, Zepho, Gaetham, og Kenas.

12. Og Thimna var hiákvinna Eliphas Esau sonar, hún fædde hønum Amalek. Þesse eru Esau børn, af Ada hans kvinnu.

13. Enn Reguels børn eru þesse, Nahath, Serah, Samma, Misa. Þesse eru børn Basmath, kvinnu Esau.

14. Þesse eru børn af Ahalibama, kvinnu Esau Ana dottur, sem var barns barn Zibeons, er hún fædde Esau, Jeus, Jaelam og Korah.

15. Þesser eru høfdingiar á medal sona Esau. Børn Eliphas Esau frumgetna sonar voru þesse, hertuge Theman, hertuge Omar, hertuge Zepho, hertuge Kenas,

16. Hertuge Korah, hertuge Gaetham, hertuge Amalek. Þesser eru hertugar komner af Eliphas, í lande Edom, og eru syner Ada.

17. Þesser eru syner Reguels sonar Esau hertuge Nahath, hertuge Serah, hertuge Samma, hertuge Misa. Þesser eru hertugar

komner af Reguel, i lande Edom og eru þesser syner Basmath kvinnu Esau.

18. Þesse eru børn Ahalibama Esau kvinnu, hertuge Jeus, hertuge Jaelam, hertuge Korah, þesser høfdingiar komu af Ahalibama Anas dottur kvinnu Esau.

19. Þetta eru børn Esau og þeirra høfdingia, hann er Edom.

20. Þesse eru børn Seirs Horita sem biuggu í landenu, Lothan, Sobal, Zibeon, Ana,

21. Dison, Ezer, og Disan, þesser eru Horita hertugar Seirs børn í lande Edom.

22. Enn þesse eru Lothans børn, Hori og Heman, og Lothans syster het Thimna.

23. Þesse voru Sobals børn, Alvan, Manahath, Ebal, Sepho, og Onan.

24. Þesse voru børn Zibeon, Aia og Ana, og þesse Ana var sá, sem fann múlasna í eydemørku, þá hann geymde síns føðurs Zibeons asna.

25. Þesse voru Anas børn, Dison, og Ahalibama, þad er Anas dotter.

26. Þesse voru børn Dison, Hemdan, Esban, Jetran og Charan.

27. Þesse voru Ezers børn, Bilhan, Savan, og Akan.

28. Disans børn voru Uz og Aran.

29. Þesser voru hertugar Horita, hertuge Lothan, hertuge Sobal, hertuge Zibeon, hertuge Ana,

30. Hertuge Dison, hertuge Ezer, hertuge Disan. Þesser voru hertugar þeirra Horita, sem ríktu í landenu Seir.

31. Þesser eru þeir kongar, sem ríktu í lande Edom, fyrr enn Israels syner høfdu konga.

32. Bela Beors son var kongur í Edom og hans borg het Dinhaba.

33. Enn sem Bela deyde, vard Joab Serah son af Bazra kongur í hans stad.

34. Þá Joab andadest, var Husam af lande Themanorum kongur í hans stad.

35. Enn þá Husam deyde, vard Hadad Bedads son kongur í hans stad, hvør ed sló þá Madianita á Moabiters mørkum. Og hans stadur het Avith.

36. Enn sem Hadad deyde, ríkte Samla af Masrek.

37. Þá Samla deyde, vard Saul af Rehoboth hiá fliotenu, kongur í hans stad.

38. Epter andlát Sauls, tók kongdom Baal Hanan Achbors son.

39. Epter Baal Hanan Achbors son tók Hadar kongdom, og hans stadur het Pagu, og hans kvinna het Mehethabeel, dotter Matred, dottur Mesahab.

40. Þesse voru þeirra hertuga nøfn, sem komu af Esau, epter þeirra ætterne, stødum og nøfnum, hertuge Thimna, hertuge Alva, hertuge Jetheth,

41. Hertuge Ahalibama, hertuge Ela, hertuge Pinon,

42. Hertuge Knas, hertuge Theman, hertuge Mibzar,

43. Hertuge Magdiel, hertuge Jram. Þetta eru þeir høfdingiar í Edom, epter því sem þeir biuggu í sínu erfdalande. Enn Esau er fader þeirra Edomita.

## 37. Capitule.

1. Jacob bio í því lande, sem hans fader hafde vered framande, sem var í Canaans lande.

2. Og þesse er Jacobs ættkvísl. Joseph var seitian ára gamall, þá hann gætte hiardar med sínum brædrum. Og sveirnenn var hiá sonum heirra Bilha og Silpa síns

fødurs kvenna. Og hann sagde sín=
um fødur fra þeirra vonðu rickte.
3. Og Israel hafðe Joseph kær=
ann framm yfer øll sín børn, þvi
hann hafðe geted hann í sinne elle,
og hann gerde hønum einn mislit=
an kyrtil.
4. Enn er hans brædur sáu þad,
ad þeirra fader elskade hann meir
enn alla hans brædur, þá fengu
þeir hatur til hans, og gátu ei talad
eitt vinsamlegt ord vid hann.
5. Þar til dreymde Joseph einu
sinne einn draum, og sagde þann
sínum brædrum, þá høtudu þeir
hann enn meir.
6. Þvi hann sagde til þeirra,
heyred hvad mig hefir dreymt.
7. Mer þokte, ad ver bundum
korns bindine á akre, og mitt korns
bindine reiste sig upp, og stód; enn
ydar korns bindine beygdu sig nid=
ur fyrer mínu korns bindine, allt
umkring.
8. Þá svørudu hans brædur høn=
um: muntu þá eiga ad verda vor
kongur, og drottna yfer oss? og þeir
fengu enn meira hatur til hans,
bæde søkum hans draums, og hans
orda.
9. Epter þad dreimde hann einn
annann draum, og sagde sínum
brædrum, segiande, siáed, mig
dreymde enn einn draum. Mer
þokte ad sólenn og tungled og ell=
efu stiørnur lutu mer.
10. Og sem þetta var sagt hans
fødur, og hans brædrum, straffade
fader hans hann og sagde til hans,
hvad er þad fyrer einn draum sem
þig dreymde? skyllde eg og þín mod=
er og þíner brædur koma og til=
bidia þig?
11. Og hans brædur høtudu
hann, enn hans fader geymde þesse
ord hiá sialfum ser.
12. Og sem hans brædur gengu
nú í burt, ad hallda þeirra fødurs
saudum til haga í Sichem, sagde
Israel til Josephs,
13. Geyma eigi þíner brædur
hiørd í Sichem? kom, eg vil senda
þig til þeirra.
14. Hann svarade, her em eg.
Og hann sagde, far þangad, og siá
hvert allt geingur vel þínum bræd=
rum og hiørdinne, og seig mer sva
aptur, hvad þar er tídenda. So
sende hann Joseph á stad úr daln=
um Hebron, ad hann fære til Si=
chem.
15. Þá fann madur nockur hann,
er hann villtest á mørkenne, hann
spurde hann ad, og sagde, epter
hverju leitar þú?
16. Hann svarade, eg leita epter
mínum brædrum, eg bid þig ad þú
seiger mer hvar þeir hallda hiørd=
enne.
17. Madurenn svarade, þeir eru
farner hedan, þvi eg heyrde þá sei=
gia, ver vilium fara til Dothan.
So geck Joseph epter sínum bræd=
rum, og fann þá í Dothan.
18. Sem þeir sáu hann nu á=
leingdar, ádur enn hann kom nær=
re þeim, gerdu þeir rád sín, ad vega
hann,
19. Og søgdu sín á mille, siáed,
draum=madurenn kemur,
20. Þvi komed nú og látum oss
vega hann, og køstum hønum í gry=
siu, og seigium ad íllt dyr hafe
hann uppeted, þá mun siást, hvad
hans draumar hafa uppá sig.
21. Enn sem Ruben heyrde þetta,
villde hann frelsa hann af þeirra
høndum, og sagde, eige skulum ver
drepa hann. Og Ruben sagde enn
framar til þeirra.
22. Uthelled eigi blóde, helldur
kasted hønum í þessa grøf sem her
er í eydemørkenne, og legged eigi
hendur á hann. Þvi hann villde

frelsa hann af þeirra høndum, so hann gete aptur feinged hann sínum fødur.

23. Og sem Joseph kom nu til sinna brædra, flettu þeir hann sínum kyrtle, sem var sa mislite kyrtell er hann hafde.

24. Og þeir tóku hann, og køstudu hønum í eina gryfiu. Enn sú sama gryfia var tóm og vatnslaus.

25. Þeir settust nidur ad neyta matar. Og í þvi bile, lyptu þeir upp sínum augum, og sáu, ad flockur Ismaelita kom af Gilead, med sína ulfallda, sem báru jurter, balsamum, og myrrham, og ferdudust nidur í Egyptaland.

26. Þá sagde Juda til sinna brædra, hvad stodar oss þo ver myrdum vorn bródur og leynum hans blóde?

27. Komed, ver vilium selia hann þeim Ismaelitis, so ad vorar hendur forgrípe sig eigi á hønum, þvi hann er vor bróder, vort holld og blód, og þeir hlyddu hønum.

28. Og sem þeir Madianiter sku kaupmenn reistu þar framm hiá, drogu þeir hann upp úr gryfiunne, og selldu hann þeim Ismaelitis fyrer tuttugu silfurpeninga. Þeir fluttu hann í Egyptaland.

29. Enn þá Ruben kom nu til gryfiunnar aptur, og fann eigi Joseph þar, þá reif hann sín klæde,

30. Kom til sinna brædra aptur og sagde, sveirneun er eigi þar, hvert skal eg fara?

31. Þá toku þeir Josephs kyrtil, sæfdu einn hafur, og velktu kyrtelenn í hans blóde.

32. Og þeir sendu þann sama mislita kyrtel af stad, og letu færa hann þeirra fødur, og feigia so, þetta høfum ver funded, skoda þú, hvert þad er þíns sonar kyrtill, eda eigi.

33. Hann þeckte hann, og sagde, þad er míns sonar kyrtell, olmt dyr hefir upp eted hann; eitt glepsande dyr hefir sundur sliteð Joseph.

34. Og Jacob reif sín klæde, og lagde einn seck um sínar lendar, og syrgde sinn son langa tíma.

35. Og aller hans syner og dætur, løgdu sig til ad hugga hann, enn hann villde eigi láta sig hugga, og sagde, eg mun fara med harme í grøfena nidur til míns sonar. Og hans fader gret hann.

36. Enn þeir Madianitar selldu Joseph í Egyptalande þeim manne sem het Potiphar, hver ed var Pharaonis herbergis sveinn og hofmeistare.

## 38. Capitule.

1. Þad bar til á þeim sama tíma, ad Juda fór ofann frá sínum brædrum, og gaf sig til eins manns af Odollam, han het Hira.

2. Og þar leit Juda eins Canverskš manns dottur, hann het Sua, og feck hennar.

3. Og sem hann lagdest med henne, vard hún þungud, og fædde einn son, þann nefnde hann Ger.

4. Hun vard og ólett í annad sinn, og átte einn son, þann nefnde hún Onan.

5. Hún fædde aptur einn son, þann kallade hún Sela. Hann var í Chesib, þá hún fædde hann.

6. Og Juda gipte sinn frumgetenn son Ger einne kvinnu, sem het Thamar.

7. Enn hann var skálkur í auglite Drottins, þar fyrer sló Drottinn hann íhel.

8. Þá sagde Juda til Onan, gack inn til þinnar bródur kvinnu, og tak hana til egta, so þú meiger uppvekia þínum bródur sæde.

9. Enn er Onan visse þad, ad

sæded var eigi hans eiged, þo ad hann legdest med síns bródurs kvinnu, let hann þad á jørd falla, og spillast, so hann skyllde ei gefa sínum bródur sæde.

10. Þad mislíkade Drottne er hann gerde, og sló hann einnenn íhel.

11. Þá sagde Juda til sinnar sonarkonu Thamar, vert þú ein eckia í þíns fødurs húse, þar til minn sonur sela er vaxenn. Þvi hann hugsade, ske má, ad hann deye so sem hans brædur. Thamar fór burt, og var í síns fødurs húse.

12. Og epter marga daga lidna, andadist dottur Suha, húsfru Juda. Og þar epter sem Juda hafde úte sína sorg, þá fór hann upp til Thimnath ad klippa sína saude, med sínum hyrder, Hira af Odollam.

13. Þetta spurde Thamar, siá, mágur þinn gengur upp til Thimnath, ad klippa sitt fe.

14. Og hún lagde sinn eckiu-bunad af ser, sem hún bar, og vafde um sig einum møttle og hulde sig, og sette sig fyrer dyrnar á þeim veige sem liggur til Thimnath, þvi hún sá, ad Sela var fullvaxenn, enn hún var þo ei gipt hønum.

15. Þá nú Juda sá hana, ætlade hann ad vera munde ein port kona, þvi hún hafde huled sitt andlit.

16. Hann geck af veigenum til hennar, og sagde: leyf mer ad liggia hiá þer, þviad hann visse eigi ad þad var hans sonar kvinna. Hún svarade, hvad villt þú gefa mer, ad þú meger liggia hiá mer?

17. Hann sagde, eg vil senda þer einn geithafur af hiørdenne. Hún svarade, fá mer þá nockud í panta, þar til þú sender mer hann.

18. Hann sagde, hvad villt þú þá ad eg fáe þer til panta? hún svarade, þinn hring, þinn nasadúk, og þinn staf sem þú hefir í hendenne.

19. So feck hann henne þetta, og lá hiá henne, og hún feck getnad af þeirra vidskiptum, stód upp, og geck burt, og lagde kápuna af ser, og færde sig í eckiubúning aptur.

20. Og Juda sende geithafurenn med sínum hyrder af Odollam, og ad hann skyllde heimta pantana aptur af kvinnunne, enn hann fann hana hverge.

21. Þá spurde hann fólked ad í þeim stad, og sagde, hvar mun sú portkona, sem sat út vid veigenn. Þeir svørudu, engenn portkona hefir þar vered.

22. Og þann kom til Juda aptur, og sagde, eigi fann eg hana, og fólked í þeim stad sagde, þar hefde eingenn portkona vered.

23. Þá sagde Júda, hafe hún þad hún helldur, ad ver skulum eigi verda minkader, þvi eg sende geithafurenn sem eg lofade, og þú kunner eigi ad finna hana.

24. Þremur mánudum þar epter lidnum, var Juda sagt, Thamar þíns sonar kona er nú ordenn portkona, og siá, her med er hún ordenn ólett í frillulíse. Þá svarade Juda, færed hana hingad, hún skal brennast.

25. Og þá hún var frammleidd, sende hún bod til síns mágs, og sagdi, af þeim manne hef eg getnad fenged, sem þetta heyrer til, og sagde, veitst þá eigi hverium þesse hringur, og þesse klútur, og þesse stafur tilheyrer?

26. Juda þeckte þad og sagde, hún er rettferdugre enn eg, þvi eg gaf henne eigi minn son Sela, og hann kennde hennar eigi þadann í frá.

27. Og sem hún skyllde nu verda lettare, þá geck hún med tvibura.

28. Og í sialfre fædingunne þá kom þar ein barns hønd í liós. Yfersetukonann tók þá einn raudann þrád, og batt um høndena og sagde, þesse skal fyrst fædast.

29. Enn sem hann tók sína hønd ad ser, þá kom hans bróder til, og hún sagde, þvi hefir þú fyrer þína skulld gert soddann sundurslit? og hann var nefndur Perez.

30. Þar epter var hans bróder fæddur, sem hafde þann rauda þrád um sína hønd, og hann var kalladur Serah.

## 39 Capitule.

1. Joseph var fluttur nidur í Egyptaland. Og Pothiphar einn ægyptskur madur, herbergis þenare og hofmeistare Pharaonis kongs keypte hann ad þeim Ismaelitis, sem fluttu hann ofann þangad.

2. Og Gud var med Joseph, so hann vard luckusamur, og var í húse síns Herra þess ægyptska.

3. Og hans Herra sá, ad Drottinn var med hønum, þviad allt hvad hann gerde, þad let Drottenn vel luckast fyrer hønum.

4. So ad hann fann nád fyrer sínum Herra, og var hans þenare. Og hann sette hann yfer allt sitt hús, og allt hvad hann hafde, þad gaf hann hønum under hans hendur.

5. Og upp frá þeim tíma sem hann hafde sett hann yfer sitt hús, og yfer alla sína fiárhlute, þá blessade Drottenn þess hins ægyptska hús, vegna Josephs, og þar var idugleg Guds blessan yfer øllu þvi hann hafde, bæde heima í húsenu og so á ørkrunum úte.

6. Og þvi gaf hann alla syna eigu Joseph í hendur, og hugsade eigi um neitt á medann hann hafde hann, utann át og drack. Enn Joseph var vænn ad yferlite, og frídur í ásionu.

7. Þad skede epter þessa tilburde, ad kona hans Herra rennde augum til Josephs, og sagde, sof þu hiá mer.

8. Enn hann villde eigi, og sagde til hennar, siá, minn Herra, hlutast til einskis fyrer mer sem er í hans húse, og allt hvad hann á, þad hefir hann lagt under mínar hendur,

9. Og hann hefir eckert so mikels verdt í sínu húse, ad hann geyme þad þvi vidvíkur, ad þú ert hans eigennkvinna, hvørnenn má eg nú þá gerá so miked óhæfu-verk, og syndgast á mote Gude?

10. Hún talade daglega soddann ordum vid Joseph; enn hann villde í engann máta samþyckiast henne, í þvi hann læge med henne, eda være hiá henne.

11. Þad skede so á nockrum deige, ad Joseph geck ínn í húsid, til sysslu sinnar, og þar var engenn madur af heimafolkenu.

12. Hún tók þá í hans fat, og sagde so til hans; sof þú med mer. Enn hann let epter sitt fat í hennar høndum og flúde, og hlióp út af húsenu.

13. Og sem hún sá nú, ad hann let sitt fat epter í hennar høndum, og flyde út.

14. Þá kallade hún á folked í húsenu, og sagde til þeirra; siáed, hann hefir haft hingad þann ebreska mann, til ad veita oss vanvirdu, hann kom her ínn til mín, og villde hafa leiged med mer, enn eg kallade med hárri roddu.

15 Enn sem hann heyrde ad eg hrópade so, og kallade, þá sleppte hann sínu fate vid mig, enn flyde siálfur, og hlióp út.

16. Og hún lagde hans fat hiá ser, þartil ad hans Herra kom heim. Og talade til hans øllum sømu ordum, og mællte.

17. Her kom sá ebreske sveirn ínn til mín, sá þú hefir haft hingad, og villde vanvirda mig.

18. Enn þá eg tók til ad hrópa og kalla, þá let hann epter sitt fat hiá mer, og flyde í burtu.

19. Og sem hans Herra heyrde ord sinnar kvinnu, sem hún talade til hans, og sagde, so hefir þinn þenare gert vid mig. Þá vard hann miøg reidur.

20. Þá tók hans Herra hann, og kastade hønum í mirkvastofu, þar sem kongsins fángar voru vardveitter. Og han lá þar í mirkvastofunne.

21. Enn Drottinn var med hønüm og hneigde sína miskun til hans, og let hann finna nád hiá forstióra mirkvastofunnar.

22. So hann bifalade under hans hønd alla bandingiana sem voru í mirkvastofunne, so ad allt hvad þar skyllde gerast, hlaut af hønüm ad gerast.

23. So ad forstiorenn mirkvastofunnar tók ser eigi neitt fyrer hendur, þviad Drottinn var med Joseph, og Drottinn gaf lucku til þess sem hann gerde.

## 40. Capitule.

1. Sá átburdur vard þar epter, ad skeinkiare kongsins í Egyptaland, og so hans bakare brutu í móte sínum Herra Egyptalands konge.

2. Og Pharao reiddist bádum sínum þionustümønnum, þeim ypparsta skeinkiara, og ypparsta bakara.

3. Og let setia þá í hofmeistarans hús í mirkvastofu, þar sem Joseph var fyrer í fángelse.

4. Og hofmeistarenn sette Joseph yfer þá, ad hann skyllde þióna þeim, og þeir sátu nockra daga í mirkvastofu.

5 Og báda Egyptalands kongs þionustumenn skeinkiarann, og bakarann, dreymdi, á einne nottu, under eins, hvern þeirra sinn draum, og hvers þeirra draumur hafde sína merkingu.

6. Þá Joseph kom nu ínn til þeirra um morgunenn, og sá ad þeir voru óglader, spurde hann þá ad, og sagde.

7. Þvi erud þer so ókáter í dag?

8. Þeir svørudu, ockur hefir dreymt, og her er eingenn sá sem kann þad ad ráda fyrer ockur. Joseph sagde, útleggingenn heyrer Gude til, enn seiged mer þo (hvad yckur dreymde.)

9. Þá frammsagde sá ypparste skeinkiare fyrer Joseph sinn draum, og sagde til hans, mig dreymde, ad einn vínvidur være fyrer mer, med þremur kvíslum.

10. Hann vard grænn, ox og blómgadest, so ad vínberenn þar á urdu fullvaxenn,

11. Og eg hafde Pharaonis bordker í minne hende, og eg tók berenn og spreingde þau í kered, og so retti eg kerid í Pharaonis hønd.

12. Þá sagde Joseph til hans, þetta er útþydingenn þar uppá, þriar vínvidar kvísler eru þrír dagar.

13. Og ad þremur døgum lidnum, mun Pharao upp-hefia þitt høfud, og setia þig aptur til þíns embættis, so þú munt retta bordkerid í hans hønd, so sem þú plagader fyrr ad gera, þá þú varst hans skeinkiare.

14. Enn minnstu mín, þá þer velgeingur, og veit mer þá miskun, ad þú áminner Pharaonem, ad hann taki mig út af þessu húse.

15. Þviad mer var med leynd burt stolid af lande ebreska manna, þar med hefi eg og her eckert þar til unned, ad þeir hafa sett mig ínn.

16. Nú sem sá ypparste bakare sá þetta, ad utþydinginn var so god, þá sagde hann til Joseph, mig dreymde og so. Eg þottunst bera þriár hvítar karfer á mínu høfde.

17. Og í þeirre efstu kørf voru allra handa steiktar kráser til handa Pharaone. Enn fuglarner átu úr kørfenne, á mínu høfde.

18. Þá svarade Joseph, og sagde, þetta er útþýdingen, þriár karfer eru þrír dagar.

19. Og epter þriá daga mun Pharao upp hefia þitt høfud, og festa þig á gálga, og fuglar munu eta þitt holld af þer.

20. Og þad skede á þridia deige þadann, þa hellt Pharao sinn burdar-dag, og gerde øllum sínum þenurum eitt gestabod, þá upphof hann þess ypparsta skeinkiara høfud, og so høfud þess ypparsta bakarans, á medal sinna þenara.

21. Og hann sette þann ypparsta skeinkiara aptur til síns embættis, ad hann skyllde retta kered í Pharaonis hønd.

22. Enn þann ypparsta bakara let hann heingia, so sem Joseph hafde út-þydt þeim.

23. Enn sá ædste skeinkiarenn minntest eigi á Joseph, helldur gleymde hønum.

## 41. Capitule.

1. Og tveimur árum þar epter þá dreymde Pharao draum, hverju hann stód hiá einu fliote.

2. Og siá, upp úr fliotenu komu siø kyr feitar og fagrar, og þær geingu í gódu haglende.

3. Epter þær sá hann adrar siø kyr stíga upp ór fliotenu, þær voru liótar og magrar. Þær geingu ad þeim ødrum kunum, sem voru á fliotsbackanum.

4. Og þær enu liótu og møgru kyrnar, uppátu þær siø feitu og føgru kyr, og þá vaknade Pharao.

5. Og hann sofnade í annann tíma, og hann dreymde í annad sinn, og sá, ad þar spruttu upp siø aux á einum hálme full og þrútenn.

6. Þar epter sá hann ønnur siø mió og bruunenn aux upp koma.

7. Og þesse siø møgru auxen upp svelgdu þau siø feitu og fullu auxen.

8. Þá vaknade Pharao, og fornam ad þad var einn draumur. Og um morgunenn vard hans ande hugsiúkur. Og hann sende út, og heimte til sín alla spáságnar menn Egyptalands, og alla spekinga, og sagde þeim sína drauma, enn þar var eingenn sem þá kunne ad ráda fyrer Pharaone.

9. Þá talade sá ypparste skeinkari til Pharaonem, og sagde, minnest eg í dag á misgerning minn.

10. Þá Pharao vard reidur uppá sína þenara, og let setia mig og þann ypparsta bakara í mirkvastofu, í hofmeistarans húse,

11. Þá dreymde ockur báda á einne nottu sinn draum hvern ockar, og hverium fyrer sig geck epter þvi sem hvers draumur redst.

12. Þar var hiá ockur eitt ungmenne ebreskt, hofmeistarans þenare, hønum søgdum vid ockar drauma.

13. Og hann rede ockar drauma, hverium epter sínum draum, og þad geck ockur so epter sem hann útlage þá, þviad eg em settur til míns embættis aptur, enn sá annar vard heingdur.

14. Þá sende Pharao, og let kalla á Joseph, og þeir letu hann strax úr mirkvastofunne, og hann let skera

sitt hár, og fór í ønnur klæde, og geck inn fyrer Pharao.

15. Þá sagde Pharao til hans, mig hefir dreymt einn draum, og her er eingenn sá hann kann ad ráda, enn eg hefe heyrt sagt um þig, ad þegar þú heyrer nockurn draum, þá kunner þú ad ráda hann.

16. Joseph svarade Pharaone og sagde, eigi er þvilíkt í mínu valde, Gud mun þo spá Pharaone gods.

17. Þá sagde Pharao Joseph frá, mig dreymde, eg stæde á sliots backanum,

18. Og eg sá sió fagrar kyr koma upp úr ánne, og þær geingu í haglendenu og bitu.

19. Og epter þær sá eg sió adrar þurrar, miøg liótar og magrar kyr uppkoma; eg hefe alldrei séd adrar jafnliótar í øllu Egyptalande.

20 Og þær sió møgru og liótu kyr uppátu þær fyrre sió feitu kyrnar,

21. Og þá þær høfdu upp eted þær, sá þar eigi mun á þeim, ad þær hefdu eted þær, og voru liótar líka sem fyrr. Og þá vaknade eg.

22. Þar epter sá eg aptur í mínum draume, ad sió aux runnu upp á einum hálme, full og þrútenn.

23. Þar epter runnu upp sió þurr aux, sem bæde voru þunn og svidinn.,

24. Og þesse sió þunnu auxenn upp átu þau sió enu þyckvu auxenn Og eg hefe sagt spásagnar-mønnum þetta, enn þeir kunnu eigi ad þyda mer þetta út.

25. Joseph svarade Pharaone, báder Pharaonis draumar merkia eitt, þvi Gud kunngerer Pharaone, hvad hann ætlar ad gera.

26. Sió kyr fagrar eru sió ár, og þau sió gódu auxenn eru og sió ár, þesser báder draumar hafa eina merking.

27. Þær sió kyr magrar og liótar, sem upp komu epter hinar, þad eru sió ár, og þau sió miόu og visinn aux, eru sió hallæris ár.

28. Þetta er nu þad sem eg hefe sagt Pharaone, ad Gud undervísar Pharaone hvad hann vill gera.

29. Siá, sió rík ár munu koma, yfer allt Egyptaland.

30. Enn ad þeim lidnum, þá munu koma ønnur sió hallæris ár, so ad menn skulu gleyma allre þeirre nægd í Egyptalande, og þad hallære mun upp eta landed,

31. So ad menn skulu ei minnast þeirrar yferfliótanlegrar argædsku í landenu, søkum þeirrar hallæris tídar, sem koma mun her epter, þvi hún verdur miøg þung.

32. Enn þad Pharaonem dreymde hid sama í ødru sinne, þad hefir þá merking ad Gud vill sannarlega, og snarlega gera þetta.

33. Þvi siáe sig Pharao um, og fáe til einn vísann og forsiálann mann, hvern hann kunne ad setia yfer allt Egyptaland,

34. So ad hann skicke høfudsmenn yfer landed, og take fimmtung allann í Egyptalande, á þessum sió árgædsku árum.

35. Og samannsafne allra handa vistum á þessum gódum tilkomande árum,

36. Ad þeir safne korne í Pharaonis kornhlødur, og geyme þad til forda í stødunum, so menn mege finna forsorgadar fædslur fyrer landed á þeim sió hallæris árum, sem koma munu yfer Egyptaland, so ad landed fordiarfest eigi af hungre.

37. Þesse ræda líkade Pharaone, og øllum hans þenurum,

38. Og Pharao sagde til sinna þenara, hvar munum ver finna einn þvilíkann mann, í hveriu Guds ande er?

39. Og hann sagde til Josephs, af þvi ad Gud hefir kunngert þer allt þetta, þá er þar eingenn so hyggenn og forsiáll sem þu ert.

40. Þu skallt vera yfer-settur yfer mitt hús, og allur minn lydur skal hlyda þínum ordum, kongs hásæte einu skal eg þer ædre vera.

41. Og enn framar sagde Pharao til Josephs, siá, eg hefe sett þig yfer allt Egyptaland.

41. Og hann tók hring af hende ser, og gaf hann Joseph á hans hønd, og klædde hann med hvítum silkeklædum, og heingde eina gull-kediu um hans háls.

43. Og hann let aka hønum í sínum ødrum vagni, og let uthrópa fyrer hønum: hann er landsins fader. Og sette hann yfer allt Egyptaland,

44. Og Pharao sagde til Josephs, eg em Pharao: án þíns vilia skal eingenn hræra hønd sína eda fót í øllu Egyptalande.

45. Og Pharao kallade hann Leyndar Rád. Og hann gaf hønum Asnath til eiginnarkvinnu, sem var dottur Potiphars kennemanns í On. So reiste Joseph út, ad skoda Egyptaland.

46. Og hann var þriatíge ára gamall, þá hann stód fyrer Pharaone, kongenum af Egyptalande, og hann geck út fra Pharao, og reiste í gegnum allt Egyptaland.

47. Og landed leidde af ser yfer-fliotanlega gnægd ávaxtar um þau siø vellte ár.

48. Og hann safnade saman á þeim siø árum alshättudum fædslum, sem voru á Egyptalande, og lagde þær ínn í stadina, allt þad sem vor á økrunum í kringum hvørn stad, til fædslu, þad allt samann let hann ínn láta.

49. Og í soddann máta safnade Joseph ómælanlega miklu korne til samans, so sem sand med siáfarstrøndu, so hann let af ad telia þad, þvi þad kunne eigi ad reiknast.

50. Og Joseph átte tvo sonu, ádur enn hallæred kom, hveria ed Asnath, dotter Potiphars kennemansins í On, fædde hønum.

51. Og hann nefnde þann fyrra Manasse, þvi Gud (sagde hann) hefir láted mig gleyma øllum mínum mótgange, og øllu míns fødurs húse.

52. Þann annann nefnde hann Ephraim, þvi Gud (sagde hann) hefir láted mig vagsa í þessu lande þar eg var fátækur.

53. Og sem þau siø friofgunar ár voru umlidenn í Egyptalande,

54. Þá toku þau siø hallæris árinn ad koma, þau sem Joseph hafde talad um. Og þar vard hallære í øllum løndum: enn í øllu Egyptalande var braud.

55. Enn sem ad þar kom, ad alls Egyptalands innbyggiarar toku ad lída hungur, þá hrópade folked til Pharao um braud. Enn Pharao sagde til allra ægyptskra, fared til Josephs, og hvad hann seiger ydur, þad gered.

56. Sem nú hallæred var í øllu landenu, þá upplauk Joseph allstadar kornhlødum, og selde þeim ægyptsku, þviad þess leingur sem hallæred var, þess þyngra var þad í landenu.

57. Og øll lønd komu í Egyptaland, ad kaupa af Joseph, þvi miøg megnt hungur var í øllum løndum.

## 42. Capitule.

1. Nú sem Jacob sá ad korn var til kaups í Egyptalande, þá sagde hann til sona sinna, þvi horfed þer so leinge á þetta? siáed,

2. Eg hefe heyrt sagt, ad korn se til kaups í Ægyptalande, þar fyrer fared ofann þangad, og kauped oss korn, so ver meigum lifa og deya eigi.

3. Þá foru tíu Josephs brædur ofan til Ægyptalands, ad kaupa korn.

4. Enn Jacob let eigi Benjamin Josephs brodur fara med sínum brædrum, þviad hann sagde, má ske ad hann meige saka nockud.

5. Og Israels syner komu ad kaupa korn, med þeim ødrum sem ad fóru med þeim, þviad þar var hallære í Canaans lande.

6. Enn Joseph var stiornari í landenu, og hann sellde korned øllum mønnum landsins. Og sem hans brædur komu nú til hans, fellu þeir nidur til jardar fyrer hønum, á sínar ásiónur,

7. Og hann sá uppa þá og þeckte þá, enn hann lét sem hann þeckte þá eigi, og mællte hardlega vid þá, og sagde til þeirra, hvadann erud þer adkomner? þeir svørudu; af Canaans lande, ad kaupa oss fædslur.

8. Enn þo hann þeckte þá, þá þecktu þeir hann eigi ad helldur.

9. Joseph minntest þá á Draumana sem hann hafde ádur til forna dreymt um þá, og sagde til þeirra, þer munud vera niosnarmenn, komner til þess, ad siá hvar landed er oped.

10. Þeir svørudu hønum, eige er so, minn Herra, þíner þenarar eru hingad komner ad kaupa fædslur.

11. Ver erum aller eins manns syner, ver erum ærleger, og þíner þenarar hafa alldrei vered niosnar menn.

12. Hann sagde þá til þeirra, nei, helldur munud þer komner ad skygnast um, hvar landed er oped.

13. Þeir svørudu hønum; ver þíner þionar erum tolf brædur, eins manns syner, í Canaans lande, og sá hinn yngste er nú heima hiá vorum fødur, enn sá einn er eigi til.

14. Joseph sagde til þeirra, þetta er þad sem eg hefe sagt, þer erud niosnar-menn.

15. Þar uppa vil eg reyna ydur, so sannarlega sem Pharáo lifer, þer skulud eigi á burt fara hedann, fyrr enn ydar broder kemur hingad.

16. Sended einn af ydur ad sækia ydar brodur. Enn þer skulud vera í siøtrum, so vil eg reyna ydar sagner, hvert þer seiged satt edur ei. Annars erud þer so sannarlega sem kongur Pharao lifer, niosnarmenn.

17. So let hann hallda vørd yfer þeim til samans í þriá daga.

18. Enn á þeim þridia deige sagde hann til þeirra, ef þer viled hallda ydar lífe, þá gered so sem eg seige, þviad eg óttunst Gud.

19. Ef þer erud frómer, þá ligge einn af ydar brædrum bundenn í ydar fángelse, enn þer fared heim og flyted heim þad sem þer hafed keypt ydar hungurs vegna.

20 Og hafed hingad ydar yngsta broder til mín, þá vil eg trúa ydrum ordrum, so þer skulud eigi deya, og þeir gerdu so.

21. Og þeir tøludust vid sín á mille, þetta høfum ver forþenad á brodur vorum, siáande ángist hans andar, þá hann grátbænde oss, og ver villdum eigi heyra hann, og þarfyrer kemur nu þesse hørmung yfer oss.

22. Ruben svarade þeim og sagde, hvert sagde eg ydur eigi þetta? þá eg sagde, syndgest eigi á sveinenum, enn þer villdud eigi hlyda mer? nú útheimtest hans blód.

23 Enn þeir vissu eigi ad Joseph skilde þad, þvi hann talade vid þá fyrer einn túlk.

24. Og hann snere ser fra þeim og gret. Enn sem hann snere ser nú til þeirra aptur, og talade vid þá, þá tók hann af þeim Simeon, og batt hann fyrer þeirra augum.

25. Og Joseph baud ad fylla skyllde secke þeirra med korn, og láta í secke þeirra. aptur serhvers þeirra peninga, þar med og neste uppá veigenn, og so gerdu þeir vid þá.

26. Og þeir løgdu sína vøru uppa sína asna, og fóru í burt þadann.

27. Enn sem einn þeirra leyste til síns secks, og villde gefa sínum asna fódur í herbergenu, þá fann hann sína peninga, ad þeir láu ofann á í secknum.

28. Og hann sagde til sinna bræðra, míner peningar eru komner til mín aptur, siá, þeir eru her í mínum seck. Þá fell þeim hugur, og þeir urdu felms-fuller innbyrdis og søgdu, hveriu mun þad sæta, ad Gud hefir gert oss þetta?

29. Enn sem þeir komu nú heim til síns fødurs Jacobs, í þad landed Canaan, kunngerdu þeir hønum allt þad sem yfer þá hafde geinged, og søgdu.

30. Sá madur sem er Herra í því lande, hann talade hardlega til vor, og hellt oss fyrer landsins niosnara.

31. Enn þá ver svørudum hønum, ver erum ærleger og vorum alldrei niosnarar,

32. Helldur erum ver tolf bræður vors fødurs syner, og sá einn er eigi meir til, enn sá yngste er enn nú heima hiá vorum fødur í Canaans lande.

33. Þá sagde landsherrann til oss, þar af vil eg merkia hvert þer erud frómer edur ei, láted einn af ydrum brædrum vera her epter hiá mer, enn þer taked þad sem þørf gerest handa ydar húsum og fared af stad,

34. Og hafed so ydar yngsta brodur til mín hingad, þá merke eg, ad þer erud eigi niosnarmenn, helldur ærleger, þá vil eg gefa ydur ydar brodur aptur, og skulud þer meiga kaupslaga her í lande.

35. Enn sem þeir helltu kornenu úr sínum seckium, þá fann hver um sig sinn peninga knytelskauta í sínum seck. Og sem þeir sáu, ad þad voru þeirra peninga knytelskautar, þá urdu þeir felms-fuller, og so þeirra fader.

36. Þá sagde Jacob þeirra fader til þeirra, þer ræned mig mínum børnum. Joseph er eigi á døgum, og Simeon er í burtu, Benjamin viled þer í burt taka, og allt þetta kemur yfer mig.

37. Ruben svarade sínum fødur, og sagde: ef eg fære þer hann eigi aptur, þá slá þú báda mína sonu íhel, sel þú hann eigi utann í mína hønd, eg vil færa þer hann aptur.

38. Hann sagde, minn sonur skal eigi fara ofann þangad med ydur, því hans broder er andadur, og hann er einn epter ordenn, ef hønum fellur nockur olucka til á veigenum, þeim þer fared, þá munud þer leida mínar hærur med hiartans sorg í grøfena.

## 43. Capitule.

1. Nú sem hallærisstídenn þreyngde þeim fast í landenu.

2. Og er því korne var loked sem þeir høfdu flutt af Egyptalande, þá sagde þeirra fader til þeirra, fared aptur þangad, og kauped oss nockrar fædslur.

3. Þá svarade Juda hønum og sagde, sá madur lagde þad streingelega fyrir oss og sagde, þer skulud eigi siá mitt andlit, nema því ad eins, ad ydar broder se med ydur.

4. Se þad nú so, ad þú sender vorn broder med oss, þá vilium ver ferdast þangad, og kaupa þer atvinnu.

5. Enn viler þú eigi senda hann med oss, þá førum ver eigi ofann þangad, þviad sa madur sagde til vor, þer skulud eigi siá mína asiónu, nema þvi ad eins, ad ydar broder se med ydur.

6. Israel svarade, hvar fyrer hafed þer gert so illa vid mig, ad þer søgdud hønum, ad þer ættud enn nú einn broder?

7. Þeir svørudu, sá madur spurde oss so nákvæmlega ad oss og vorre ætt, og sagde, lifer ydar fader enn nu? edur eiged þer enn nu einn brodur til? þá svørudum ver hønum epter þvi sem hann oss adspurde. Eda hvernenn mátte oss þad í hug koma, ad hann munde segia, færed ydarn brodur ofann hingad med ydur?

8. Þá sagde Juda til Israels síns fødurs, láttu sveinenn fara med mer, so ver megum búa oss til og ferdast, og lifum, og deyum eigi, bæde ver og þú, og vor smábørn.

9. Eg vil vera í borgun fyrer hann, þú skallt krefia hans af mínum høndum. Og ef eg fære þer hann ei aptur, og set hann fyrer þín augu, þá vil eg bera þá skulld alla mína daga.

10. Þvi hefdum ver eigi tafed, þá værum ver alla reidu tvær reisur aptur komner.

11. Þá sagde þeirra fader Israel til þeirra, fyrst þad hlytur so vera, þá gered þad, og taked af þeim besta ávexte landsins í ydar secke, og færed þeim manne giafer ofann þangad, nockud af balsamo, hunange, og jurtum, og myrrhu, og dattel, og mandel.

12. Taked og adra peninga med ydur, og þá peninga sem komner voru efst ofann á ydar secke, hafed aptur med ydur, ske má, ad villast hafe mátt um.

13. Taked og her til ydarn brodur, taked ydur upp og fared aptur til þessa manns.

14. Enn Gud almáttugur gefe ydur miskunseme fyrer þeim manne, so hann láte koma þann annann ydarn brodur, og þennann Benjamin, aptur heim med ydur, enn eg hlyt nu ad vera, so sem sá ad ræntur er sínum børnum

15. So tóku þeir þessar gáfur, og tvøfallda peninga med ser, og Benjamin; tóku sig upp, og fóru í Egyptaland, og gengu fyrer Joseph.

16. Þá leit Joseph þá, ásamt med Benjamin, og sagde til síns rádsmanns, fylg þessum mønnum til herbergis, slátra og reid til, þvi þeir skulu eta med mer middags verd.

17. Og madurenn gerde sem ad Joseph bífalade hønum, og fylgde mønnunum í Josephs hús.

18. Enn þeir óttudust, fyrer þvi, ad þeir voru leidder inn í Josephs hús, og søgdu, ver erum látner her inn fyrer søkum þeirra peninga, sem ver fundum ádur í vorum seckium, so ad hann bere þad ad oss, og láte sídann einn dóm ganga yfer oss, so hann kunne med þessu ad taka oss til þræla, med vorum øsnum.

19. Þar fyrer gengu þeir til Josephs rádsmanns, og tøludu vid hann, fyrer dyrum úte, og søgdu,

20. Minn Herra, ver fórum fyrre ofann hingad, ad kaupa fædslur,

21. Og þá ver komum til herbergis, og leystum til vorra seckia, siá, þá fann hver einn sína peninga, ofann á í sínum seck med fullre vigt, og þvi høfum ver fært þá hingad med oss aptur.

22. Ver høfum og teked adra peninga med ofs, ad kaupa ofs fædslur fyrer, enn ver vitum eigi, hver lagt mun hafa vora peninga aptur í vora secke.

23. Þá ságde hann, vered til frids, óttest eigi, ydarGud, og ydra fedra Gud, hefir gefed ydur fesiod í ydra secke, eg medtók ydra peninga. Og hann leidde Simeon út til þeirra.

24. Og leidde þá í Josephs hús, og gaf þeim vatn, ad þvo sínar fætur, so gaf hann og þeirra øsnum fódur.

25. Enn þeir tilreiddu sínar giafer, í móte þvi, ad Joseph munde koma um middagenn, þvi þeir høfdu heyrt, ad þeir skylldu fá þar matar.

26. Enn sem Joseph geck nú inn í húsed, báru þeir hønum þeirra gáfur í sínum høndum, og fellu nidur til jardar fyrer honum.

27. Enn hann heilsade þeim blídlega og sagde, hversu má sa gamle madur ydar fader, af hverium þer søgdud mer, lifer hann enn nu?

28. Þeir svørudu, vel má þinn þenare vor fader, og hann lifer enn nú. Og þeir lutu og fellu nidur fyrer hønum.

29. Þá upplypte hann sínum augum, og sá sinn brodur Benjamin sinnar modur son, og sagde, hvert er þad ydar yngste broder, sá er þer søgdud mer frá? og hann sagde frammveigis, Gud miskune þer minn son.

30. Og Joseph flytte ser, þvi hans hiarta brann af ást til síns brodurs, og hann leitade epter, hvar hann kynne ad gráta, og hann geck inn í sitt svefnhús, og gret þar.

31. Og sem hann hafde þveiged sitt andlitt, geck hann út, og let eigi á ser siá, og sagde, legged braud á borded.

32. So báru þenararner serislage fyrer hann, og serilage fyrer hans brædur, og serilage fyrer þá ægyptsku, sem átu med hønum, þviad eigi kunna ægyptsker ad eta med ebreskum, þvi þad er þeim svívirdulegt.

33. Og þeir voru setter þvert yfer frá hønum, sá frumgetne epter sinne frumgetningu, og sá hinn yngste epter sínum unga alldre, þad undrudust þeir sín í mille.

33. Og matur var settur af hans borde til þeirra, enn Benjamin feck simmsinnum meira enn hiner adrer. Og þeir drucku og urdu druckner med hønum.

## 44. Capitule.

1. Joseph baud sínum rádsmanne, og sagde, fyll þú þessara manna secke med fædslur, so miked sem þeir kunna ad bera, og legg peninga serhvers þeirra efst í hvers seck,

2. Og legg mitt silfurker efst í þess yngsta seck, med þeim peningum sem komu fyrer korned. Hann gerde sem Joseph tilsagde hønum.

3. Um morgunenn, þá liost var orded, letu þeir mennena fara af stad med sínum øsnum.

4. Og er þeir voru skammt burt farner af stadnum, þá sagde Joseph til síns rádsmanns, rís upp, og far epter þessum mønnum, og þá þu fær þá høndlad, þá seig til þeirra, hvar fyrer hafed þer bitalad íllt fyrer gott?

5. Er þad eigi þad sem minn Herrá dreckur af, og hvert hann hefir til síns spádoms? þer hafed vondsloga gert.

6. Og þá hann hafde høndlad þá, þá talade hann þesse ord vid þá.

7. Þeir svørudu hønum; þvi mæler minn Herra soddann ord? fiarlægt se þad þínum þenúrum ad gera slíkt,

8, Siá, þá peninga sem ver fundum efst í vorum seckium, færdum ver þer hingad aptur ur Canaans=lande, og hvernenn skylldum ver þá nú stela annad hvert silfre eda gulle úr þíns Herra húse?

9. Hiá hverium sem þad finnst, á medal þinna þenara, hann skal deya, þar til vilium ver og so vera míns Herra þionarar.

10. Hann sagde, iá, þad se so sem þer hafed mællt, hiá hverium sem þad finnst, hann skal vera minn þræll, enn þer skulud vera fríer.

11. Þá hrødudu þeir ser, og tók hvør ofann sínar klyfiar, og lógdu á jerd, og hver einn leyste til síns secks.

12. Og hann rannsakade, og hóf upp hiá þeim ellsta, og til hins yngsta, þá fannst bordkered í seck Benjamins.

13. Þá rifu þeir sín klæde, og serhver lagde uppa sinn asna, og fóru í borgena aptur.

14. Og Juda geck med sínum brædrum í Josephs hús, þviad hann var þar þá enn. Og þeir fellu framm fyrer hønum nidur á jørdu.

15. Þá sagde Joseph til þeirra, þvi þordud þer ad gera þetta? vited þer eigi, ad þvilíkur madur sem eg em, kann vissulega uppfyst ad gera?

16. Juda sagde, hvad skulum ver segia mínum Herra, eda hvad skulum ver tala? eda hvernenn kunnum ver ad affaka oss? Gud hefir funded ránglæte þinna þenara. Siá, ver og hann sem bordkered, fannst hiá erum míns Herra þionar

17. Hann sagde, þad se langt frá mer ad gera þad. Sá madur hiá hverium kered fannst, hann skal vera minn þion. Enn fared þer í fride upp til ydars fødurs.

18. Þá geck Juda framm ad hønum, og sagde, minn Herra, leyf þínum þenara ad tala eitt ord fyrer þínum eyrum,

19. Minn Herra! og ad þín reide gremest eigi yfer þínum þenara, þvi þú ert sem sia[illegible]ur Pharao. Minn Herra spurde sína þenara ad, og sagde, hafed þer og einn fødur eda brodur?

20. Þá svørudum ver, ver høfum einn gamlann fødur, og einn ungann svein, sem hann gat í finne elle, enn hans broder er látenn, og þesse er einn epter, epter sína modur, og hans fader elskar hann.

21. Þá sagder þú til þinna þenara, færed hann hingad ofann til mín, eg vil audsyna hønum nád.

22. Þá svørudum ver mínum Herra, sveinnenn má eigi koma frá sínum fødur, enn ef hann fer frá hønum, þá deyr hann.

23. Þá sagder þú til þinna þenara, kome eigi ydar yngste broder hingad med ydur, þá skulud þer eigi siá mitt andlit framarmeir.

24. Þá fórum ver af stad, upp til þíns þenara míns fødurs, og kunngerdum hønum míns Herra ord.

25. Þá sagde vor fader, ferdest af stad aptur, og kauped oss fædslur nockrar.

26. Þá svørudum ver: eigi kunnum ver ad fara ofann þangad, nema þvi ad eins, ad vor yngste broder se med oss, þá vilium ver fara ofann þangad, þvi ver þorum eigi ad siá þess manns andlit, ef vor yngste broder er eigi med oss.

27. Þá sagde þinn þenari; minn fader til vor, þer vited ad mín kvinna hefir fædt mer tvo,

28. Annar þeirra fór heimann frá mer, og seiga menn ad hann hafe vered rifenn íhel, og sídann hefi eg ei sed hann.

29. Og ef þer taked nú þennann og so frá mer, og kemur hønum

nockur ólucka til, þá munud þer leida mínar hærur nidur í grøfena med harme.

30. Nu ef eg kem heim til þíns þenara, míns føt...s, og sveirnenn er eigi med oss, fyrer þvi ad hans sál henger vid sveinsins sál.

31. Þá mun so fara, nær hann ser, ad sveirnenn er eigi þar, þá mun hann deya, so færdum ver þá, þíner þenarar, hærur vors fødurs þíns þenara, med hiartans sorg í grøfena.

32. Þviad eg þinn þenare em í borgun fyrer sveinenn, vid minn fødur, og eg sagda, ef eg fære hann þer eigi aptur, þá vil eg sekur vera alla mína daga.

33. Lát nu þar fyrer þinn þenara vera epter í sveinsins stad, ad þióna mínum Herra, og lát sveinenn fara upp med sínum brædrum,

34. Þviad hverneun gæte eg fared, upp til míns fødurs, ef ad sveinnenn er eigi med mer? eg hlyte þá ad siá uppá þá hørmung, sem koma munde yfer minn fødur.

## 45. Capitule.

1. Þá gat Joseph eigi halldid ser leingur, fyrer øllum þeim sem stodu í kringum hann, og hann kallade. Láted hvern mann fara út frá mer, og þar stód eige einn madur epter hiá hønum, þá Joseph let sína brædur þeckia sig.

2. Og hann gret med hárre røddu, so þad heyrdu ægyptsker, og þeir í Pharaonis húse.

3. Og hann sagde til sinna brædra, eg em Joseph, lifer minn fader enn nu? enn hans brædur máttu engo svara hønum, so hrædder voru þeir ordner fyrer hans auglite

4. Þá sagde hann til sinna brædra, komed hingad til mín! og er þeir geingu til hans, þá sagde hann, eg em Joseph ydar broder, hvern þer selldud í Ægyptaland.

5. Vered eigi umsorgande, og hugsed eigi, ad eg se þar fyrer reidur ad þer selldud mig hingad, þviad ydur til lífs-hiálpar hefir Gud sendt mig hingad fyrer ydur.

6. Þviad tvø ár eru sídann þetta hallære kom í landed, og þar eru enn nu epter fimm ár, á hverium menn skulu hverke plægia ne haust-yrkiu inn-safna.

7. Enn Gud hefir sendt mig hingad undann ydur, ad hann vill láta ydur halldast vid á jørdunne, og frelsa ydart líf med stórre frelsan.

8. Og eige hafed þer sendt mig hingad, helldur Gud, hann hefir sett mig fødur Pharaonis, og einn Herra yfer allt hans hús, og einn høfdingia yfer allt Ægyptaland.

9. Flyted ydur nú, og fared upp til míns fødurs, og seged hønum, þetta seger Joseph þinn sonur; Gud hefir sett mig til høfdingia yfer allt Ægyptaland, kom ofann til mín, tef þú eigi,

10. Þú skallt búa í landenu Gosen, og vera nærre mer, þú og þín børn, og þín barna børn, þitt kvikfe smátt og stort, og allt þad þú hefir,

11. Þar vil eg forsorga þig. Þvi þar standa enn nú fimm hallæris ár epter, so ad þú eigi fordiarfest, med þínu húse, og øllu þvi þú hefir.

12. Siáed, ydar augu siá þad, og míns brodurs Benjamins augu, ad eg tala munnlega vid ydur.

13. Kuungered mínum fødur alla mína vegsemd í Ægyptalande, og allt þad sem þer hafed sed, fared skyndelega, og komed ofann hingad med mínum fødur.

14. Og hann fell um hals sínum brodur Benjamin, og gret, og Benjamin gret og so um hans hals.

15. Og hann mynntist vid alla sína brædur, og gret yfer þeim. Epter þetta toludu hans brædur vid hann.

16. Þesse tídende komu í Pharaonis hús, ad Josephs brædur voru komner, þad líkade Pharaoni vel, og ollum hans þenurum.

17. Og Pharao sagde til Josephs, seig þú þínum brædrum, gered so, klifed ydar dyr, og fared af stad; nær þer komed í Canaans land,

18. Þá taked ydar fødur, og ydart folk, og komed til mín, eg vil gefa ydur gots í Egyptalande, ad þer skulud eta merg landsins. Og bióð þeim, gered so.

19. Taked ydur vagna af Egyptalande, handa ydar børnum og konum, og taked ydarn fødur, og komed.

20. Og líted eigi vid vegna ydar búsbúhluta, þvi audæfe alls Egyptalands skulu vera ydar.

21. Og Israels børn gerdu so. Og Joseph feck þeim vagna, sem Pharao baud, og so neste á veigenn.

22. Hann gaf og hverium þeirra einn hátída klædnad. Enn Benjamin gaf hann þriu hundrud silfurpeninga, og fimm helgra daga klæde.

23. Og hann sende sínum fødur þar med tíu asna klifiada med gots af Egyptalande, og tíu øsnur klifjadar af korne, braude og vistum handa sínum fødur á veigenn.

24. So slepte hann sínum brædrum, og þeir foru í burtu. Og hann sagde til þeirra, deiled eigi á veigenum.

25. Þeir fóru af Egyptalande, og komu í Canaansland, til síns fødurs Jacobs,

26. Kunngerdu hønum, og sogdu, Joseph lifer enn nu, og er einn Herra yfer øllu Egyptalande; enn hans hiarta hugsade allt annad, þvi hann trúde þeim eigi.

27. Þá sogdu þeir hønum øll Josephs ord, sem hann hafde sagt til þeirra. Og sem hann sá þá vagna sem Joseph hafde sendt hønum til flutnings þangad, þá lifnade ønd fødurs þeirra Jacobs.

28. Og Israel sagde, þad er mer nóg ad minn sonur Joseph lifer enn nú, eg vil fara og siá hann, ádur enn eg andast.

## 46. Capitule.

1. Israel fór í burt med øllu þvi hann átte. Og sem hann kom til Bersaba offrade hann síns fødurs Isaacs Gude fórner.

2. Og Gud sagde til hans, um nott, í einne syn, Jacob! Jacob! hann svarade, her em eg.

3. Og hann sagde, eg em Gud, þíns fødurs Gud, ottast þú eigi ad fara ofann í Egyptaland, þviad þar vil eg gera þig ad einne mikellre þiod.

4. Eg vil fara ofann med þer í Egyptaland, og eg vil leida þig upp aptur hingad, og Joseph skal leggia sínar hendur yfer þín augu.

5. Jacob tók sig upp frá Bersaba, og Israelis syner fluttu þeirra fødur Jacob, med sínum smábørnum og kvinnum, í vøgnum þeim sem Pharao hafde sendt, ad flytia þá á.

6. Og þeir tóku sitt kvikfe, og alla þá fiárhlute sem þeim hafde aflast í Canaans lande, og komu í Egyptaland, Jacob og allt hans sæde med hønum.

7. Hans syner og hans sonarsyner med hønum, hans dætur og hans barna dætur, og allt hans sæde flutti hann med ser til Egyptalands.

8. Þesse eru Israels barna nøfn,

sem komu í Egyptaland. Jacob og hans syner. Ruben Jacobs frumgetinn sonur.

9.Rubens børn, Hanoch, Pallu, Hezron, og Charmi.

10. Simeons børn Jemuel, Jamin, Ohad, Jachin, Zohar og Saul, sonur þeirrar Canversku kvinnu.

11. Levi børn, Gerson, Cahath, og Merari

12. Juda børn, Ger, Onan, Selah, Perez, og Serah. Enn Ger og Onan deyðu í lande Canaan. Enn Perez børn Hezron og Hamúl.

13.Isaschars børn, Thola, Phua, Job og Semron.

14.Sebulons børn, Sered, Elon, og Jaheel.

15. Þessi eru børn komenn af Lea, sem hún fædde Jacob í Mesopotamia, med sinne dottur Dina. Þessar allar sáler voru ad tølu þriátíu og þriár med sonum og dætrum.

16. Børn Gads, Ziphion, Haggi, Suni, Ezbon, Eri, Arodi og Areli.

17.Børn Assers, Jemna, Jesua, Jesui, Briah, og Sera þeirra syster. Enn børn Bria, Heber og Malchiel.

18.Þessi eru þau børn Silpas, sem Laban gaf sinne dottur Lea, og hún fædde Jacob þessar sextan sáler.

19. Børn Rachelar Jacobs kvinnu, Joseph og Benjamin,

20. Og Joseph gat í Egyptalande Manasse og Ephraim, sem Asnath Potiphars dotter kennemannsins í On, fædde hønum,

21. Benjamins børn, Bela, Becher, Asbel, Gera, Naaman, Ehi, Ros, Mupim, Hupim og Ard.

22. Þessi eru þau børn af Rachel sem hún fædde Jacob, aller samann fiortan sáler.

23. Børn Dann, Husim.

24. Børn Nephthalis, Jahzeel, Guni, Jesser og Sillem.

25. Þessi eru børn komenn af Bilha, sem Laban gaf sinne dottur Rachel, og hún fædde Jacob þessar siø sáler.

26. Allar sáler sem komu med Jacob í Egyptaland, og komnar voru af hans lendum (ad undanteknum hans sonar konum) eru allt at samann sex og sextígu sálir.

27.Enn Josephs syner sem fæddir eru í Egyptalande, eru tvær sáler. So ad allar sáler, sem komu í Egyptaland, af Jacobs húse, voru siøtíu.

28.Og hann sende Juda undann ser til fundar vid Joseph, ad hann víssade ser til Gosen, og þeir komu inn í landed Gosen.

29. Þá let Joseph spenna fyrer sinn vagn, og drog til fundar vid fødur sinn Israel, upp til Gosen, og sem hann sá hann, fell hann um hans háls, og gret lenge um hans háls.

30.Þá sagde Israel til Josephs, giarnann vil eg nú deya, fyrst þad eg hefe sed þitt andlit, ad þú enn nú lifer.

31.Joseph sagde til sinna bræðra, og til síns fødurs húss: eg vil fara upp, kunngera Pharaoni, og seigia til hans, míner brædur og mitt fødurs hús er komid til mín af lande Canaan,

32.Og eru fiárhyrdarar, þvi þeir eru menn, sem umgeingist hafa med fe; þeirra kvikfe smátt og stort, og allt þad þeir eiga, hafa þeir haft hingad med ser,

33. Þá Pharao kallar ydur nú fyrer sig og seiger, hvad er ydar idia af hverre þer mæred ydur?

34.Þá skulud þer seigia, þíner þénarar eru þeir menn sem umgangast med kvikfe, frá vorum ungdome

allt til þessa, bæde ver og vorer forfedur, so þer megid búa í lande Gosen. Þviad þeir Egyptsku hafa andstygd á øllum fiárhyrdurum.

## 47. Capitule.

1. Þá kom Joseph, og talade vid Pharaonem, og sagde, minn fader, og míner brædur, þeirra kvikfe smátt og stort, og allt þad þeir eiga, er komid af Canaans lande, og siá, þeir eru í lande Gosen.

2. Og hann tók fimm af sínum yngstum brædrum, og skickade þá inn fyrer Pharaonem.

3. Þá talade Pharao til hans brædra; hver er ydar næringar-idia? þeir svørudu; þíner þenarar eru fiárhyrdarar, ver og vorer forfedur.

4. Og søgdu frammveigis til Pharao; ver erum komner til ad búa hiá ydur her í lande, þvi þíner þenarar hafa enga fædu til síns kvikfenadar, so storlega þreynger hallære Canaans landi. Þar fyrer leyf nú þínum þenørum ad búa í lande Gosen.

5. Pharao sagde til Josephs; þad er þinn fader og þíner brædur, sem eru komner til þín.

6. Egyptaland stendur oped fyrer þer, lát þá búa í þvi besta plátse landsins, búe þeir í lande Gosen. Og ef þú veitst nockra dugnadar menn vera á medal þeirra, þá set þá yfer minar hiarder.

7. Joseph leidde og so sinn fødur Jacob til fundar vid Pharaonem, og skickade hann framm fyrer hann. Og Jacob blessade Pharaonem.

8. Enn Pharao spurde Jacob ad, hvad gamall ert þú?

9. Jacob sagde til Pharaonem: minn útlendingskapar-tíme er húndrad og þriatíu ár, fáer og íller eru míner lífdagar, og ná eigi tíma minna forfedra, í þeirra útlendingsskap.

10. Og Jacob blessade Pharaonem, og geck út frá hønum.

11. Enn Joseph skickade sínum fødur og sínum brædrum bústade, og gaf þeim eigner í Egyptalande, þar bester voru landskoster, sem var í lande Rameses, só sem Pharao hafde boded

12. Og Joseph forsorgade sinn fødur, og sína brædur, og allt sins fødurs hus, ser hvern epter þvi sem hann hafde børn til.

13. Enn þar var ecke braud í øllum løndum, þviad hallæred var miøg þungt, so ad Egyptaland og Canaan vanmegnadest af þvi hallære.

14. Og Joseph safnade øllum peningum til samans sem fundust í Egyptalande og Canaan, fyrer þad korn sem þeir keyptu, og hann let þá alla peninga í Pharaos hús.

15. Nú sem þá þraut peninga í Egyptalande og Canaan, þá komu aller Egyptsker til Josephs, og søgdu; gef oss braud, þvi lætur þú oss deya fyrer þer, þó ad ver høfum ei peninga?

16. Joseph svarade, hafed hingad ydart kvikfe, so vil eg gefa ydur fyrer kvikfed, fyrst ad þer hafed eigi til peninga.

17. So færdu þeir Joseph sitt kvikfe. Og hann gaf þeim korn fyrer þeirra hesta, saude, uxa, og asna. So hiálpade hann þeim med braud, þad ár í gegnum, fyrer allt þeirra kvikfe.

18. Enn sem þad áred var úte, komu þeir þad annad ár til hans og søgdu hønum, ver vilium eigi dylia þess fyrer Herra vorum, ad ei allreinasta peningar helldur og so kvikfed er í burt, og komid til vors Herra, og ver høfum eigi meira epter,

handa vorum Herra, utann vora líkame og vorar jarder,

19. Þvi lætur þú oss deya, og vora akra verda í eyde? kaup þú oss og vorar jarder fyrer braud, ad ver med voru life og jarda gotse verdum Pharaos eign, gef oss sæde, so ver meigum lifa og eigi deya, og ad akrarner eigi eydest.

20. So keypte Joseph allt Egyptaland, til handa Pharaone, þvi þeir Egyptsku selldu hver sínar jarder, þviad hungred lá so strídt á þeim, og med þessu vard landed Pharaos eign.

21. Og hann útskipte folkenu um borgernar, frá þeim einum Egyptalands enda til annars.

22. Ad undanteknum prestanna jørdum, þær keypte hann eigi, þviad Pharao hafde skickad prestunum, hvar af þeir skylldu næra sig, og ánafnad þad, sem hann hafde gefed þeim: Þar fyrer þurftu þeir eigi ad selia sínar jarder.

23. Þá sagde Joseph til folksins, siáed, eg hefe í dag keypt ydur og ydra akra, Pharaone til eignar,

24. Siáed, þar hafed þer korn til ad sá jørdena. Enn af kornenu skulud þer gefa Pharaone fimmtung, þeir fiorer hluter skulu vera ydrir, til sáds og fædslu, fyrer ydar hús og børn.

25. Þeir søgdu, lát oss ad eins lifa, og finna nád fyrer þer vorum Herra, ver vilium giarnann vera Pharaos þrælar.

26. So skickade Joseph þeim ein løg, inn til þessa dags, yfer allt Egyptaland, ad hver Madur skal gefa Pharaone þann fimmta hlut, undannteknum prestanna jørdum, sem eigi komu under Pharaonem.

27. So var Israel búande í Egyptalande, í lande Gosen, og helldu sig þar. Og þeir uxu og margfølldudust miøg.

28. Og Jacob lifde seitian ár í Egyptalande, so ad hans allur alldur vard hundrad, siø og fioratíu ár.

29. Nú sem nálgadest andláts tíd Israels, þá kallade hann sinn son Joseph, og sagde til hans; hafe eg funded nád fyrer þer, þá legg þína hønd under mínar lendar, ad þú viler syna mer kærleika og trú, og jarda mig eigi í Egyptalande,

30. Helldur vil eg liggia hiá mínum forfedrum, og þú skallt flytia mig af Egyptalande, og jarda mig í þeirra grøf. Hann sagde, eg vil gera so, sem þú hefir sagt.

31. Enn hann sagde; so sver mer þar eid uppá. Og hann svór hønum. Þá hneigde Israel sig í sængenne ad høfdalagenu.

## 48. Capitule.

1. Þar epter var Joseph sagt, siá, þinn fader er siukur. Þá tók hann sína báda sonu, Manasse og Ephraim med ser.

2. Þá var sagt Jacob, siá, þinn sonur Joseph kemur til þín.

3. Þá hreyste Jacob sig, og settest upp í sænginne, og sagde til Joseph. Almáttugur Gud byrtest mer í Lus í lande Canaan, og blessade mig,

4. Og sagde til mín, siá, eg vil láta þig vaxa og margfalldast, og gera þig ad fiølda folks, og eg vil gefa þínu sæde epter þig þetta land til æfinnlegrar eignar.

5. So skulu nu þíner tveir syner Ephraim og Manasses, sem þer eru fædder í Egyptalande, ádur enn eg kom hingad til þín, vera míner, líka sem Ruben og Simeon.

6. Enn þeir sem þú átt her epter, þeir skulu vera þíner, og kallast sem þeirra brædur, í þeirra arfskipte.

7. Og þá eg kom af Mesopotamia, andadest Rachel fyrer mer, í þvi lande Canaan, á þeim veige, þá eg var enn skammt eitt frá Ephrath, og eg gróf hana þar í þeim sama stad á veigenum til Ephrath, sem nú kallast Bethlehem.

8. Og Israel sá Josephs sonu, og sagde, hverer eru þesser? Joseph svarade sínum fødur,

9. Þesser eru míner syner, sem Gud hefir her gefed mer. Hann sagde, leid þá hingad til mín, so ad eg blesse þá,

10. Þviad Israel glaptest syn af elle, so hann gat eigi vel sed. Og hann leidde þá til hans, enn hann kyste þá, og tók þá í fáng ser,

11. Og sagde til Josephs, siá, eg hefe sed þitt andlit, hvad eg hafde eigi þeinkt, og siá, Gud hefir ad auk þess, láted mig og siá þitt sád.

12. Og Joseph tók þá af hans fadme, og hneigde sig til jardar móte hans auglite.

13. So tók Joseph þá báda, Ephraim ser til hægre handar, mot Israels vinstre hønd, enn Manasse til vinstre handar, mot Israels hægre hønd, og leidde þá til hans.

14. Enn Israel rette sína hægre hønd út, og lagde hana á Ephraims høfud, sem var yngre, og sína vinstre hønd á Manasses høfud, og hagade viliande so sínum høndum, þvi Manasses var sá hinn frumgetne.

15. Og hann blessade Joseph, og sagde, Gud, í hvers auglite míner forfedur Abraham og Isaac gengu, sá Gud sem ad forsyrgde mig mína lífs tíd inn til þessa dags.

16. Sá engell sem mig hefir frelst frá øllu vondu, hann blesse þessa sveina, ad þeir kallest epter mínu nafne, og epter minna forfedra Abrahams og Isaacs nafne, og þeir vaxe og verde marger á jørdunne.

17. Enn sem Joseph sá þad, ad fader hans lagde sína hægre hønd uppa Ephraims høfud, þá mislikade þad honum. Og hann tók um síns fødurs hønd af høfde Ephraims, og villde hafa viked henne frá Ephraims høfde, og uppá høfud Manasses.

18. Og sagde til hans, eigi so, minn fader; þesse er sá hinn frumgetne, legg þína hægre hønd uppá hans høfud.

19. Enn hans fader neitade þvi, og sagde, eg veit þad vel, minn sonur, eg veit þad vel. Þesse skal og verda ad folke, og margfalldast, enn hans yngre broder skal verda meire enn hann, og hans sæde skal verda eitt mikid folk.

20. So blessade hann þá þann sama dag, og sagde, hver sem vill blessa nockurn í Israel, hann skal seigia: Gud sete þig líka sem Ephraim og Manasse.

21. Og Israel sagde til Josephs, siá, eg andast, og Gud mun vera med ydur, og leida ydur aptur í ydart fødurland.

22. Eg hefe gefed þer einn hluta landsins, framm yfer þína brædur, hvern eg tók af Amorita hende, med mínu sverde og boga.

## 49. Capitule.

1. Jacob kallade sína sonu fyrer sig, og sagde,

2. Safned ydur til samans, so eg mege kunngera ydur, hvad yfer ydur mun koma, á epterkomande tímum, heimtest samann, og hlyded til þer Jacobs børn, og heyred ydarn fødur Israel.

3. Ruben minn fyrste sonur, þú ert minn kraptur, og mín fyrsta magt, ypparstur í offre, og ypparstur í ríkenu.

4. Hann rann lauslega burt

sem vatn, þú skallt eigi vera œdstur, þviad þú fórst uppí þíns fødurs sœng, og saurgader mína sœng med þinne uppfør.

5. Þeir brœdur Simeon og Levi, þeirra sverd eru mordingia vopn,

6. Mín sál skal eigi koma í þeirra rád, og mín æra skal eigi vera í þeirra samkundu, þvi þeir myrdtu manneun í sinne reide, og med sínum eigenn vilia hafa þeir uxann fordiarfad.

7. Bølvud verde þeirra reide, þvi hún er so straung, og þeirra grimd, ad hún er so hørd. Eg vil skipta þeim í Jacob, og tvístra þeim í sundur medal Jsrael.

8. Juda, þú ert þann, þig skulu þíner brœdur prísa, þín hønd skal vera á þinna óvina hálse. Þer skulu born þíns fødurs lúta.

9. Juda er eitt ungt Leon, þú ert hátt komenn, minn sonur, fyrer stórann sigur, hann kraup nidur, og lagde sig so sem Leon, og so sem Leon-inna: hver vill uppreisa sig í móte hønum?

10. Sú konunglega spíra skal eigi burt takast frá Juda, ne helldur lœremeistarinn frá hans fótum, fyrr enn Shilo kemur, og til hans munu þiodernar ser hallda.

11. Hann mun binda sinn fola vid víntred, og sinnar asnainnu son, vid þann edla vínkvistenn. Hann mun þvo sinn klœdnad í víne, og sinn møttul í vínberia blóde.

12. Hans augu eru raudare enn vín, og hans tennur hvítare enn miolk.

13. Sebulon skal búa hiá hafnenne vid sióenn, og þar sem skipalangenn eru, og hans landamerke ná ad Zidon.

14. Jsaschar skal vera einn beinasne, og hann skal leggia sig á mille landamerkianna.

15. Og hann sá ad hvíldenn er gód, og ad landed er lystelegt, enn hann hefir beygt sínar herdar til byrdar, og er ordenn einn skattgilldur þenare.

16. Dan skal vera domare yfer sínu folke, so sem ein ønnur ættkvísl í Jsrael.

17. Dan skal vera einn høggormur á vege, og ein nadra á gøtunne, bítande í hestsins hæl, so ad sá ed rídur, falle á bak aptur.

18. Drottinn! eg bíd epter þínu hiálprœde.

19. Gad herklœddur, skal fœra stríds herinn framm og til baka aptur.

20. Af Asser kemur þad feita braud, og hann mun gera kongungum til vilia.

21. Nephthali er einn snar hiørtur, og gefur snialla rœdu.

22. Joseph mun vaxa: hann mun vaxa so sem hiá einum uppsprettubrunne, dœturnar ganga framm med valldstiornenne.

23. Og þo ad skotmennerner reite hann til reide, og stríde ímote hønum, og ofsœke hann,

24. So verdur þó hans boge fastur, og armleggur hans handa sterkur, fyrer hendur þess hins megtuga í Jacob. Af hønum eru komner hyrdarar, og hann er einn steinn í Jsrael.

25. Af þíns fødurs Gude ertu hólpenn, og blessadur ert þú af þeim almáttuga, med blessan af himnum ofann, med blessan af underdiúpenu, sem her under liggur, med blessan af briostenu og kvidnum.

26. Þíns fødurs blessaner eru sterkare, enn minna forelldra blessaner (epter osk þeirra ypparlegu í heimenum) og þær munu koma yfer Josephs høfud, og yfer hvirfel á þeim Nazarenis á medal hans brœdra.

27. Benjamin er einn glefsande úlfur, ad morgne mun hann eta herfáng, enn ad kvølldе skal hann herfángenu út skipta.

28. Þesser eru þeir tolf kinþætter Israels, og þetta er þad sem þeirra fader mællte vid þá, þá hann blessade þá, serhvern þeirra med einne serlegre blessan.

29. Og hann baud þeim og sagde til þeirra; eg safnast til míns folks, grafed mig hiá mínum forfedrum, í þeirre grøf á Ephrons Hethiters akre, í þeim tvøfallda heller sem liggur gegnt Mamre í lande Canaan, hvern Abraham keypte med akrenum af Ephron Hethita til erfdagreptrunar.

30. Þar hafa þeir grafed Abraham, og hans kvinnu Sara,

31. Þar hafa þeir og grafed Isaak og Rebecku hans kvinnu. Þar í sama stad hefi eg og so grafed Lea, í þeim akre og í þeim heller sem keyptur var af Heths børnum.

32. Þá Jacob hafde endad þessar skipaner, til sinna barna, lagde hann sínar fætur tilsamans í sængenne, og uppgaf sína ønd, og vard safnadur til síns folks.

1. Þá fell Joseph yfer síns fødurs andlit, og gret yfer hønum, og mynntist vid hann.

## 50. Capitule.

2. Og Joseph baud sínum þenørum, sem voru læknarar, ad smyria sinn fødur.

3. Og læknararner smurdu Israel í fiørutíu daga, þviad so leinge stódu yfer smurnings dagarner, og Ægyptsker menn gretu hann í siøtíu daga.

4. Enn sem sorgar dagarner voru nú endader, þá talade Joseph vid Pharaos þenara, og sagde, hafe eg nú funded nád hiá ydur, þá taled vid Pharao, og seigid,

5. Minn fader tók einn eid af mer, og sagde, siá! eg andast, jarda þú mig í minne eigenn grøf, hveria eg let grafa mer í lande Canaan. Svo vil eg nú fara upp, og greftra minn fødur, og koma aptur.

6. Pharao svarade, far upp og jarda þú þinn fødur, so sem þú hefir svared hønum.

7. So fór Joseph upp, ad greftra sinn fødur, og aller Pharaos þenarar, og aller enu ellstu af hans húse, og aller enu ellstu af Ægyptalande fóru med hønum.

8. Þar ad auk aller af Josephs húse, og hans brædur, hans fødurs folk, alleina sín børn, faude og fenad letu þeir epter verda í lande Gosen.

9. Þar voru og í ferd med hønum vagnar, og reidmenn, so ad þetta vard einn stórmikell her.

10. Enn er þeir komu nú til þeirrar gyrdingar Atad, sem liggur hinumeigenn Jordanar, þar høfdu þeir einn miøg stórann og bitrann harm, og hann syrgde yfer sínum fødur í siø daga.

11. Og sem folked landsins, þeir Cananei sáu þann grát hiá þeirre kornhlødu Atad, þá søgdu þeir; þeir Ægyptsker hafa þar stórann harm. Þar fyrer kallast sá same stadur, sem liggur hinumegenn Jordanar, Ægyptskra harmur.

12. Og hans børn gerdu, so sem hann hafde boded þeim,

13. Og fluttu hann í land Canaan, og jørdudu hann í þeim tvøfallda heller þess akurs, sem Abraham hafde keypt med þeim akre, til erfda-greptrunar af Ephron Hethiter, þvert yfer frá Mamre.

14. Og sem þeir høfdu nú jardad hann, þá fór Joseph tilbaka aptur í Ægyptaland, med sínum brædrum, og med øllum þeim sem

voru farner upp med hønum, til ad jarda hans fødur.

15. Enn Josephs brædur urdu hrædder, þá þeirra fader var andadur, og søgdu; ske má, ad Joseph se reidur vid oss, og endurgiallde oss allt þad íllt, sem ver høfum gert hønum.

16. Þar fyrer letu þeir seigia hønum so: þinn fader baud oss, ádur enn hann andadest, og sagde,

17. So skulud þer seigia til Josephs: fyrerláttu þínum brædrum þeirra misgerning og þeirra synd, ad þeir hafa gert þer so íllt. Nú bidium ver, ad þú fyrergefed oss þíns fødurs Guds þenurum þann misgerning. Þá gret Joseph, er þeir tøludu þetta vid hann.

18. Og hans brædur geingu til hans, og fellu nidur fyrer hønum og søgdu; siá, ver erum þíner þionar.

19. Joseph sagde til þeirra; hrædest eigi, þvi eg em under Gude.

20. Þer hugsudud ad gera mer íllt, enn Gud þeinkte ad gera þad ad gódu, í þvi hann gerde, so sem nú klárlega framm kemur, ad hallda mørgu folke vid lífed.

21. So vered nú óhrædder, eg vil forsorga ydur, og ydar børn. Og hann huggade þá, og talade blídlega til þeirra.

22. Og Joseph bió í Egyptalande, med síns fødurs húse, og hann lifde hundrad og tíu ár,

23. Og sá Ephraims børn, allt til þridia lids. Líka einnenn børn Machirs, sonar Manasses, fæddust og á Josephs skauti.

24. Og Joseph sagde til sinna brædra; eg andast, og Gud mun vitia ydar, og færa ydur af þessu lande, inn í þad land, sem hann hefir svared Abraham, Isaac og Jacob.

25. Þar fyrer tók hann einn eid af Israels sonum, og sagde; þegar Gud vitiar ydar, þá flyted mín bein í burtu hedann.

26. Og Joseph andadest, þá hann var hundrad og tíu ára gamall, og þeir smurdu hann, og løgdu hann í eina kistu í Egyptalande.

Ender þeirrar fyrstu Mosesbókar.

# Annur Bok Moses.

## 1. Capitule.

1. Þesse eru nøfn Israels barna, sem komu í Egyptaland med Jacob, hver med sitt hús.

2. Ruben, Simeon, Levi, Juda,

3. Isaschar, Sebulon, Benjamin,

4. Dan, Nephthali, Gad, Asser.

5. Og allar sáler, sem voru komnar af Jacobs lendum, þær voru siøtíu. Enn Joseph var ádur fyrer í Egyptalande.

6. Sem Joseph var nú andadur, og aller hans brædur, og þeir aller sem lifad høfdu á þeim tíma,

7. Þá fiølgudust Israels børn, og þau gátu børn og jukust, og urdu miøg mørg, so ad landed var fullt af þeim.

8. So kom nyrr kongur í Egyptaland, hann visse eingenn deile á Joseph.

9. Og hann sagde til síns folks, siáed, lydur Israels barna er margur, og fleyre enn ver erum,

10. Nú vel, ver vilium kesia þá nidur med kænsku, so ad þeir verde ei so marger. Þviad, ef ófridur gerest, þá meiga þeir hlaupa í lid

med óvinum vorum, og beriast í móte oss, og fara so í burt af landenu.

11. Og þar voru setter hørduger verkstiorar yfer þá, þeir ed þá skylldu þvínga med þungum þrældome. Þviad menn voru þá ad byggia Pharaoni borgernar Pithon og Rameses, ad leggia inn í hans inntekter

12. Enn þess meir sem þeir þløgdu folked, þess meir fiølgade þad og margfalldadest, og þeir helldu Jsraels børn andstyggeleg.

13 Og þeir Egyptsku þiádu Jsraels børn ómiskunsamlega, med þrældome.

14. Og gerdu þeim þeirra líf leidennlegt, med þungu erfide, leirelltu og tigulsteina gerd, og allra handa þrældome á mørkenne, og med allra handa erfide, sem þeir løgdu ómiskunsamlega á þá.

15. Og kongurenn í Egyptalande mællte til þeirra Ebresku yfersetukvenna: ein het Sephora, enn ønnur Phua,

16. Nær þer sited yfer þeim Ebresku kvinnum, og þer siáed á fædingar stólnum, ad þad er einn sonur, þá lífláted hann; enn se þad dotter, þá láted hana lifa.

17. Enn yfersetukonurnar óttudust Gud, og gerdu eigi so sem Egyptalands kongur hafde þeim bodid, helldur letu børnenn lifa.

18. Þá kallade Egyptalands kongur yfersetukonurnar fyrer sig, og sagde til þeirra, þvi gered þid þad, ad þid láted børnenn lifa?

19. Lifsmædurnar svørudu Pharao, þær Ebresku konurnar eru eigi so sem þær Egyptsku, þvi þær eru hraustar konur, og ádur enn þad yfersetukonurnar koma til þeirra, þá eru þær búnar ad fæda.

20. Þar fyrer gerde Gud yfersetukonunum godt. Og folked jókst og vard miøg margt.

21. Og sökum þess, ad yfersetukonurnar óttudust Gud, þá byggde hann þeim hús.

22. Þá baud Pharao øllu sínu folke, og sagde, kasted øllum sveinbørnum í ána, sem ad fædast, og láted øll meybørn lifa.

## 2. Capitule.

1. Einn Madur af húse Levi, geck burt og tók eina af Levi dætrum, og kvinnann vard ólett, og fædde einn son.

2. Og sem hún sá, ad þad var eitt vænt barn, geymde hún hann í þriá mánude.

3. Enn þá hún gat eige leingur leynt hønum, gerde hún kistelkorn af reyri, og brædde med leiri og bike, og lagde þar í barned, og let kistelenn í sefed út med árbackanum.

4. Enn hans syster stód langt frá, ad hún mætte siá, hvernenn hønum munde ganga.

5. Og Pharaos dotter geck ofann, ad þvo sig í ánne, og hennar jungfrúr geingu epter árbackanum. Enn sem hún sá kistelenn í sefinu, sendi hún sínar ambátter þangad, og let færa ser hann.

6. Og er hún lauk hønum upp, sá hún barned; og siá, barned gret, þá sá hún aumur á þvi, og sagde, þad er eitt af þeim Ebresku børnonum.

7. Þá sagde hans syster til Pharaos dottur: villtu ad eg fare í burt, og kalle eina af þeim Ebresku kvinnum, sem hefir miolk í briostum, ad hún kunne ad fæda barned upp?

8. Pharaos dotter sagde til hennar: far þú. Jungfrúenn fór af stad, og kallade á modur barnsins.

9. Þá sagde Pharaos dotter til hennar: tak þetta barn til þín, og fostra mer þad upp, eg mun launa þer. Kvinnann tók barned, og fostrade þad upp.

10. Og þá sveinnenn var vaxenn, leidde hún hann til Pharaos dottur, og hún hellt hann fyrer sinn son, og kallade hann Moses, þvi hún sagde, eg hefe teked hann úr vatne.

11. Og á þeim tíma, þá Moses var fulltída, geck hann út til sinna brædra, og sá þeirra þiáning, og hann sá einn ægyptskann liosta hans brodur, sem var einn af þeim Ebreskn.

12. Þá litadest Moses allt umkring, og er hann sá engann mann í nánd, vo hann þann hinn Ægyptska, og grof hann í sande.

13. Enn á ødrum deige geck hann út aptur, og sá tvo Ebreska menn þrátta sín á mille, og hann sagde til hans sem órett gerde, þvi slær þú þinn náunga?

14. Enn hann sagde, hver hefir sett þig til høfdingia edur domara yfer oss, villtu vega mig, sem þú drapst þann Ægyptska? Þá vard Moses hræddur, og sagde, hvernenn er þad orded openbert?

15. Og þad kom fyrer Pharaonem, og hann leitade epter ad láta drepa Mosen, enn Moses flyde fyrer Pharaone, og hellt sig í þvi lande Madian, og dvaldest hiá einum brunne.

16. Og þar var einn kennemadur í Madian, hann átte siø dætur, þær komu þangad ad ausa upp vatn, og fylltu vatnsrennurnar, at vatna þeirra fødurs saudum,

17. Þá komu hyrdararner ad, og ráku þær í burt. Enn Moses reis upp, og hiálpade þeim, og vatnade þeirra saudum.

18. Og þá þær komu heim til síns fødurs Reguel, sagde hann, þvi komud þer so snart aptur í dag?

19. Þær søgdu, einn Ægyptskur Madur hiálpade oss frá hiarhyrdurønum, og jós vatned upp fyrer oss, og vatnade saudunum.

20. Hann sagde til sinna dætra, hvar er sá Madur? þvi letu þer hann fara í burt, og budud hønum eigi inn ad eta med oss?

21. Og Moses let ser líka ad vera hiá þeim manne, og hann gaf Mose sína Dottur Zephora.

22. Hún fædde hønum einn son, þann kallade hann Gersom, þvi ad hann sagde, eg em ordenn einn útlendingur í annarlegu lande. Og hún ól enn einn son, þann nefnde hann Elieser, og sagde, míns fødurs Gud er minn hiálpare, og hann frelste mig af hende Pharaonis.

23. Enn laungum tíma þar epter, andadest kongurenn af Ægyptalande. Og Israëls børn andvørpudu under þeirra ánaud, og kølludu, og þeirra kall yfer þeirra þiáning, kom upp fyrer Gud.

24. Og Gud heyrde þeirra sárlega kveinan, og minntest á sinn sáttmála (sem hann hafde gert) vid Abraham, Isaac og Jacob,

25. Og hann leit til þeirra, og tók þá ad ser.

## 3. Capitule.

1. Og Moses gætte sauda Jethro mágs síns, kennemanns í Madian, og rak fed á bak vid í eydemørkenne, og kom til Guds fialls Horeb.

2. Og engell Drottins byrtist hønum, í einum glóanda ellds loga, af einum runne, og hann sá ad runnurenn logade af ellde, enn eyddest þó eigi.

3. Þá mællte hann, eg vil fara þangad, ad siá syn þá hina miklu, hvar fyrer runnurinn brennur eigi upp.

4. Og sem Drottinn sá ad hann geck þangad, ad skoda, þá kallade Gud til hans úr runnenum, og sag=

de, Moses, Moses! hann svarade, her em eg.

5. Hann sagde, gack eigi nær hingad; leysstu þína skó af þínum fótum, því sá stadur, sem þú steudur á, er heiløg jørd. Og hann sagde framar meir.

6. Eg em þíns fødurs Gud, Gud Abrahams, Gud Isaacs, og Gud Jacobs. Moses byrgde sitt andlit, því hann þorde eigi ad líta uppá Gud.

7. Þá sagde Drottinn, eg hefe sed eymd míns folks í Egyptalande, og heyrt þeirra kall, under þeim, sem þá þrælka, og eg veit þeirra harm,

8. Og eg em nú ofann farenn, ad fría þá af hende Egyptskra, og útleida þá af því lande, í eitt godt og vídt land, og í þad land, sem flytur í miolk og hunangi, í þad plats þar nú búa Cananitar, Hethitar, Amoritar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar.

9. Þviad Israels barna kall er nú komed fyrer mig, og eg hefe sed þeirra þrældom, med hverum ad Egyptarner þreyngia þeim.

10. So far nu þangad, eg vil senda þig til Pharaonem, ad þú útleider mitt folk, Israels børn, af Egyptalande.

11. Moses sagde til Guds, hver em eg, ad eg fare til fundar vid Pharaonem, og leide út Israels børn af Egyptalande?

12. Hann sagde, eg vil vera med þer. Og þetta skalltu hafa til marks, ad eg sende þig, þá þú hefir leidt mitt folk af Egyptalande, þá munud þer færa Gude fórner á þessu fialle.

13. Moses sagde til Guds, siá, þegar eg kem til Israels barna, og eg seige til þeirra, Gud fedra ydra sende mig til ydar: og ef þeir seigia þá til mín. Hvert er hans nafn? hveriu skal eg þá svara?

14. Gud sagde til Mosen, Eg mun vera sá, sem eg mun vera. Og sagde so, so skalltu seigia til Israels barna, Eg mun vera, hann sende mig til ydar.

15. Og Gud sagde frammvegis til Mosen, so skalltu seigia til Israels barna, Drottinn ydre fedra Gud, Gud Abrahams, Gud Isaacs, og Gud Jacobs sende mig til ydar. Þetta er mitt nafn ad eylífu, þar med skulu menn nefna mig um alldur og ad eylífu.

16. Þar fyrer far nú þangad, og safna samann ølldungum Israels, og mæl vid þá, Drottinn Gud ydra fedra, Gud Abrahams, Gud Isaacs, og Gud Jacobs byrtest mer, og sagde, eg hefe vitiad ydar, og sed hefi eg þad ydur hefir sked í Egyptalande.

17. Og eg hefe sagt, eg vil útleida ydur af Egyptalands ánaud, ínn í land þeirra Cananita, Hethita, Amorita, Pheresita, Hevita og Jebusita, í þad land, þar miolk og hunáng flytur í.

18. Og þegar þeir heyra þína raust, þá skalltu, og þeir ellstu af Israel, fara ínn fyrer Egyptalands kong, og seigia so til hans: Drottinn Gud Ebreskra manna hefir kallad oss. So lát oss nú fara þriggia daga leid á eydemørk, ad ver færum fórner Drottni Gude vorum.

19. Enn eg veit, ad Egyptalands kongur mun eigi láta ydur fara, utann fyrer eina sterka hønd.

20. Því eg mun útretta mína hønd, og liósta Egyptaland, med allra handa stórmerkium, þeim er eg vil gera þar ínne, sídann mun hann láta ydur fara.

21. Og eg vil gefa þessu folke nád, hiá þeim Egyptsku, ad þer skulud eigi fara snauder frá þeim, þá þer

fared af landenu. Helldur skal hver kvinna fá til láns af sinne grannkonu, og af þeirre sem hún er í húse med, silfurker, gullker, og klædnad, þad skulud þer leggia uppá ydra sonu og dætur, og ræna þvi frá Egyptskum.

## 4. Capitule.

1. Moses svarade, og sagde, siá, eigi munu þeir trúa mer, ne helldur hlyda minne raust, helldur munu þeir seigia, Gud hefir eigi vitrast þer

2. Þá sagde Drottinn til hans, hvad er þad sem þú hefir í þinne hende? hann sagde, stafur er þad.

3. Han sagde, kasta þú hønum frá þer á jørdena. Og hann kastade hønum frá ser, þá vard hann ad einum høggorme. Og Moses flyde undann hønum.

4. Þá sagde Drottinn til hans, útrettu þína hønd og gríp um hans hala. So retti hann út høndena og hellt hønum, og hann vard ad einum staf aptur í hans hende.

5. Þar fyrer munu þeir trúa, ad Drottinn Gud þeirra fedra, Gud Abrahams, Gud Isaacs, og Gud Jacobs hafe vitrast þer.

6. Og Drottinn sagde enn aptur til hans, sticktu þinne hende í barm þer. Og hann let hana í sinn barm, og tók hana út aptur, og siá, hún var ordenn líkþrá sem snior.

7. Og hann sagde, sticktu henne í barm þinn aptur. Og hann stack henne aptur í barmenn, og siá, þá var hún ordenn aptur, lika sem annad hans holld.

8. Se þad nú so, ad þeir vilia ei trúa þer, ne heyra þína rødd vid þad eina teikn, þá skulu þeir þo trúa þinne røddu, vid þad annad teikned

9. Enn ef þeir trúa eigi þessum tveimur jarteiknum, og hlyda eigi þinne røddu, þá tak vatn úr ánne, og aus þvi upp á þurrt land, so skal þad vatn, sem þú tokst úr ánne, verda ad blóde á þurru lande:

10. Þá sagde Moses til Drottins, æ Drottinn minn! eg hefe eigi her til dags hast godt ordfære, sídann þú talader vid þinn þenara, þvi eg hefi þúngt málfære, og þúngfæra túngu.

11. Drottinn sagde til hans, hver hefir skapad mannsins munn? eda hver hefir gert þann mállausa og dausa, siáanda eda þann blinda? hefi eg Drottinn eigi gert þad?

12. So far nú hedann, eg vil vera med þínum munne, og kenna þer, hvad þú skallt seigia.

13. Moses svarade, minn Drottinn, send þú hvern, þú villt senda.

14. Þá vard Drottinn miøg reidur Mose, og sagde; skyllde eg eigi vita, ad þinn brodir Aaron af Levi slegte, hann er málsniallur? og siá, hann skal fara út í mote þer, og nær hann ser þig, þá mun hann fagna í sinu hiarta.

15. Þú skallt tala til hans, og leggia ordinn í hans munn, og eg vil vera med þínum og hans munne og læra yckur hvad þer skulud gera.

16. Og hann skal tala vegna þín til folksins. Hann skal vera þinn munnur, og þú munt vera hans Gud,

17. Og þennann staf tak med þer, med hverum þú skallt jarteiknernar gera.

18. Moses geck burt, og kom aptur til síns mágs Jethro, og sagde til hans; kære, leif mer ad fara, so eg meige koma til minna brædra aptur, sem ad eru í Egyptlande, og siá hvert þeir eru enn nú á líse. Jethro svarade hønum, far þú í fride.

19. Og Drottinn sagde til hans í Madian, far hedann, og ferdast

aptur í Egyptaland, því þeir eru dauder, sem leitudu epter ad líf=láta þig.

20. Moses tók sína kvinnu, og sína sonu, og flutte þau á einum asna, og fór aptur til Egyptalands berande Guds staf ser í hende.

21. Og Drottinn sagde til Mose, siá so til, nær þú kemur aptur í Egyptaland, ad þú gerer allar þessar jarteikner fyrer Pharaone, sem eg hefe gefed þer í þína hønd: enn eg vil herda hans hiarta, so ad hann mun eigi láta folked laust.

22. Og þú skallt seigia til hans, so seiger Drottinn; Israel er minn frumgetenn sonur.

23. Eg byd þer, ad þú láter minn son fara, so hann mege þiona mer, enn viler þú þad eigi, þá skal eg lió=sta í hel þinn frumgetna son.

24. Enn sem Moses kom til herbergis nockurs á veigenum, kom Drottinn í móte hønum, og villde deyda hann.

25. Enn Zephora tók þá einn stein, og umskar yferhúdena á sín=um syne, snart vid hans fætur og sagde, þú ert mer einn blodbrúd=gume.

26. Þá let hann hann vera, enn hún kallade hann blódbrúdguma, vegna umskurnarennar.

27. Og Drottinn sagde til Aar=ons, far þú á eydemørk til fundar vid Mosen. Og hann fór af stad, og mætte hønum hiá Guds fialle, og kyste hann,

28. Og Moses sagde Aarone øll ord Drottins, þess er hann sende, og allar þær jarteikner, sem hann baud hønum.

29. Þeir fóru burt, og søfnudu saman øllum þeim hinum ellstu af Israels børnum.

30. Og Aaron talade øll þau ord, sem Drottinn hafde mællt til Mosen, og gerde jarteikner fyrer folkenu.

31. Og folked trúde. Og sem þeir heyrdu þad, ad Drottinn hafde vitiad Israels barna, og sed þeirra eymd, fellu þeir framm, og tilbádu hann.

## 5. Capitule.

1. Epter þetta geck Moses og Aaron inn, og tøludu vid Pharaonem, so seiger Drottinn Israels Gud, lát þú minn lyd fara burt og hallda mer eina hátíd á eydemørku.

2. Pharao svarade; hver er sá Drottinn, hvers raust eg skule hlyda og láta Israel fara? eige veit eg nockot af þeim Drottne, og ei læt eg Israel fara.

3. Þeir svørudu, Gud Ebreskra manna hefir kallad oss, leyf oss nú ad fara þriggia daga leid burt á eydemørku, so ver meigum færa fórner Drottne, vorum Gude, ad ei kome drepsótt edur sverd yfer oss.

4. Þá sagde kongur Egypta=lands til þeirra; þú Moses og Aa=ron! því viled þid fría folked frá sínu erfide? fared aptur til ydars erfidis.

5. Og Pharao sagde enn framar meir; siáed, folked er allareidu of=margt her í lande, og þo viled þer nú, ad þad skule gefa upp ad erfida.

6. Þar fyrer á þeim sama deige, baud Pharao fovitum og verkstiór=narmønnum (sem setter voru yf=er folked) og sagde,

7. Þer skulud eigi her epter safna hálme handa þessu folke, so sem þer hafed her til gert, til ad brenna leirhellurnar þar vid, helldur láted þá fara siálfa, ad safna ser stráum,

8. Enn láted þá þo gera jafn=margar leirhellur, sem þeir hafa gert til þessa dags, og minked þad eigi þar, því þeir ganga idiulauser,

þar fyrer kalla þeir, og seigia, ver
vilium fara og færa fórner vorum
Gude.

9. Þiáed folked med erfide so ad
þeir hafe nóg ad gera, og gefe sig
eigi ad lyge-ordum.

10. So gengu fovitarner og verk-
stiornarmenn folksins út, og søgdu
til folksins, so seiger Pharao; eing-
enn strá skulu ydur gefast,

11. Fared sialfer og safned ydur
stráum, þar þer geted fundid, enn
þo skal þad eigi par minka ydart
akvedid erfide.

12. So dreifdest lydurenn hing-
ad og þangad út um allt Egypta-
land, ad leita ser hálmleggia, so þeir
mættu hafa þá í stadenn stráfins.

13. Og fovitarner ráku epter
þeim, og søgdu; fullkomned ydart
dagsverk, so sem þer gerdud fyrr,
þá þer høfdud stráenn.

14. Og þeir verkstiornarmenn,
sem Pharaonis høfdingiar høfdu
sett yfer Israels børn, fengu sløg,
og þar var sagt til þeirra, hvar fyr-
er hafed þer hverke í dag ne helldur
í gær gert ydart akvardad dags-
verk, so sem fyrr?

15. Þá geingu verkstiorarner Is-
raelis barna inn, og kølludu til
Pharaonem og søgdu, þvi fer þú so
med þiona þína?

16. Þar er ecke strá gefed þín-
um þenorum, og skulum ver samt
þo jafnmargar leirhellur hnoda sem
oss er fyrersett, og siá, þar ofann á
eru þíner þenarar barder, og þinn
lydur hlytur ad vera syndarar.

17. Pharao svarade, þer gang-
ed idiulauser, já, idiulauser gang-
ed þer, og þvi seiged þer, ver vilium
fara burt og færa fórner Drottni.

18. Þvi fared nú í burt og þræl-
ed; eingenn hálmur skal ydur gefast.
Enn ásett tal tigulsteina skulud þer
þo samt afhenda.

19. Þá sáu verkstiornarmenn
Israelis barna, ad þad villde verda
verr, þviad sagt var, þer skulud eigi
minka ydart daglegt verk á tigul-
steinunum.

20. Og þá þeir geingu út frá Pha-
raone, mættu þeir Mose og Aarone,
og þeir geingu til þeirra.

21. Og søgdu til þeirra; Drott-
inn siáe ydur, og dæme um þad, ad
þer hafed gert oss so illa lucktande
fyrer Pharaone, og hans þennrum,
og hafed fenged þeim sverded í
hendur, til ad drepa oss.

22. Og Moses kom til Drottins
aptur, og sagde; Drottinn, þvi ger-
er þú so illa vid folk þetta? hvar
fyrer sender þú mig hingad?

23. Þviad sídann ad eg geck fyrst
inn fyrer Pharaonem, ad tala vid
hann í þínu nafne, þá kvelur hann
lydenn meir enn ádur, og þú hefir
eigi frelsad þitt folk.

1. Þá sagde Drottinn vid Mo-
sen; nú skalltu siá, hvad eg vil gera
Pharaoni, þvi hann mun gefa þá
lausa fyrer sterka hønd, og med
sterkre hende mun hann þo burt re-
ka þá úr sínu lande.

## 6. Capitule.

2. Gud talade vid Mosen, og sag-
de til hans, eg em Drottinn,

3. Og eg vitradest Abraham,
Isaac, og Jacob, ad eg villde vera
þeirra almáttugur Gud, enn mitt
nafn, Drottinn, er eigi openberad
fyrer þeim.

4. Eg hefe og so uppreist minn
sáttmála vid þá, ad eg vil gefa þeim
Canaans land, þeirra Utlendings-
skapar land, íhveru þeir hafa vered
Utlendingar.

5. Líka hefi eg heyrt sára kløgun
Israels barna, hveria Egyptarner
þvinga med þungum þrældome, og
eg hefe minnst á minn sáttmála.

6. Þar fyrer seigdu so Israels børnum, eg em Drottinn, og eg vil útleida ydur frá þrældome Egyptskra manna, og frelsa ydur af ydar þyngslum, og fría ydur med útrettum armlegg, og stórum dome.

7. Og eg vil taka ydur mer til lyds, og eg vil vera ydur Gud, so ad þer skulud reyna, ad eg em Drottinn ydar Gud, sem út hefir leidt ydur frá Egyptskra manna þrældome

8. Og ínnfært ydur í þad land, yfer hvert eg upphóf mína hønd, ad eg gæfe þad Abraham, Isaac og Jacob, þad vil eg gefa ydur til eignar, eg Drottinn.

9. Þetta sagde Moses Israels børnum, enn þau hlyddu hønum eigi, fyrer andvarpan og angist og þungu erfide.

10. Þá talade Drottinn vid Mosen, og sagde,

11. Far þú ínn, og tala vid Pharaonem Egyptalands kong, ad hann láte Israels børn fara af sínu lande

12. Moses talade fyrer Drottni, og sagde, sjá, Israels børn hlyda mer eigi, hvernenn skyllde þá Pharao hlyda mer? þar med em eg med ó-umskornum vørum.

13. So talade Drottinn vid Mosen og Aaron, og gaf þeim bífalning til Israels barna, og til Pharaonem kongsins í Egyptalande, ad þeir leiddu Israels børn, burt úr Egyptalande.

14. Þesse eru høfudenn í serhvørre ættkvísl fedranna. Børn Rubens, þess frumgetna sonar Israel, eru þesse, Hanoch, Pallu, Hezron, Charmi, þesser eru kinþætter komner af Ruben.

15. Simeons børn eru þesse, Jemuel, Jamin, Ohad, Jachin, Zohar og Saul sonur þeirrar Cananversku kvinnu: þetta er Simeons ættkvísl.

16. Þesse eru nøfn Levi barna, í þeirra ættkvísl, Gerson, Kahath og Merari. Enn Levi vard hundrad sjø og þrjátíu ára gamall.

17. Børn Gerson eru þesse, Libni, og Simei med sínum ættkvíslum

18. Þesse eru Kahats børn, Amram, Jezehar, Hebron, Usiel. Og Kahat vard hundrad þriatíu og þrigia ára gamall.

19. Þesse eru Merari børn, Maheli og Musi; þesse eru komenn af Levi í þeirra ættkvísl.

20. Og Amram tók sína fødurs syster Jochebed, ser til eigennkvinnu, og hún gat vid hønum Aaron og Mose. Enn Amram vard hundrad sjø og þriatíu ára gamall.

21. Þesse eru Jezeas børn, Korah, Nepheg, Sichri.

22. Usiels børn eru þesse, Misael, Elzaphan, Sithri.

23. Aaron átte Eliseba dottur Aminadabs, systur Nahasons, og hún fædde hønum Nadab, Abihu, Eleasar, Ithamar.

24. Koras børn eru þesse, Assir, Elkana, Abiassaph. Þad er sú Korita ætt.

25. Enn Eleasar Aarons sonur, hann tók af Putiels dætrum ser eigennkvinnu. Hún fædde hønum Pinehas. Þessi eru høfudinn á medal fedranna, Levitanna ættkvíslar.

26. Þetta eru þeir Aaron og Moses, til hverra Drottinn sagde, færed Israels sonu af Egyptalande, med þeirra her.

27. Þesser eru þeir sem tøludu vid Pharaonem Egyptalands kong ad þeir leidde Israels sonu af Egyptalande, sem er Moses og Aaron.

28. Og á sama deige talade Drottinn vid Mosen í Egyptalande,

29. Og sagde til hans; eg em Drottinn, tala þú vid Pharao

Egyptalands kong allt þad sem eg tala vid þig.

30. Og hann svarade Drottne, siá, eg em med ó-umskornum vørum, hvernenn skal þá Pharao heyra mig?

## 7. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Mosen, siá, eg hefe sett þig til eins Guds yfer Pharaonem, og Aaron þinn broder skal vera þinn prophete.

2. Þú skallt tala allt þad ég byd þer, enn Aaron þinn broder skal tala þad fyrer Pharaone, ad hann láte Israels børn burt af sínu lande.

3. Enn eg vil forherda Pharaonis hiarta, so ad eg gere mín teikn og mørg stórmerke í Egyptalande.

4. Og Pharao mun eigi hlyda yckur, uppá þad eg audsyne mína hønd í Egyptalande, og leide minn her, mitt folk Israels børn, af Egyptalande, med stórum dome.

5. Og þeir Egyptsku skula fá ad vita, ad eg em Drottenn, nær eg nú útrette mína hønd yfer Egyptaland, og leide Israelis børn burt frá þeim.

6. Moses og Aaron gerda so sem Drottinn hafde boded þeim.

7. Og Moses var attatíu ára gamall, og Aaron þriggia og áttatíu ára gamall, þá þeir tøludu vid Pharaonem.

8. Og Drottinn sagde til Mosen og Aaron,

9. Þegar ad Pharao seiger til ydar, syned ydar teikn, þá skalltu seigia til Aarons, tak þinn staf, og kasta hønum framm fyrer Pharaonem, ad hann verde ad høggorme.

10. Þá geingu þeir Moses og Aaron inn fyrer Pharaonem, og gerdu só sem Drottinn hafde boded þeim. Og Aaron kastade sínum staf nidur fyrer Pharaone, og fyrer hans þenørum, og hann vard ad einum høggorme.

11. Þá kallade Pharao á spekinga og galldramenn. Og þeir Egyptsku galldramenn gerdu einnenn so med sínum særingum,

12. Og hver einn kastade sínum staf frá ser, og þar urdu af høggormar, enn Aarons stafur gleypte þeirra stafe.

13. So forherdtist Pharaonis hiarta, ad hann hlydde þeim eigi, só sem Drottinn hafde talad.

14. Og Drottinn sagde til Moses, Pharaonis hiarta er forherdt, ei vill hann leyfa folkenu burt ad fara.

15. Far þú á morgun á fund Pharaonis: siá, hann mun ganga hiá vatnenu, só gack framm á mote hønum á árbackanum, og tak þann staf í þína hønd, sem vard ad høggorme.

16. Og seig þú til hans; Drottinn Gud Ebreska manna sende mig til þín, og hann lætur seigia þer, lát mitt folk fara, so ad þad þione mer á eydemørku, enn þú hefir eigi viliad heyra til þessa.

17. Þar fyrer seiger Drottinn so, þar af þá skalltu merkia ad eg em Drottinn, siá, eg mun liosta á vatned, sem er í ánne, þessum staf, sem eg hefe í minne hende, og þad skal verda ad blode,

18. So ad fiskarner í ánne skulu deya, og vatned skal illa lyckta, so ad Egyptska skal velgia vid ad drecka af þvi.

19. Og Drottinn mællte vid Mosen, seig til Aarons, tak þinn staf, og rett þína hønd út yfer vøtnenn í Egyptalande, og yfer alla þeirra læke, strauma og støduvøtn, og yfer alla vatnspytte, ad þeir verde ad blóde, og þar skal vera blód um allt Egyptaland, bæde í trekerum og í steinkerum.

20. Moses og Aaron gerdu sem Drottinn hafde bodid þeim, og lyptu upp stafnum, og lioftudu á vatned árennar, ad ásiáanda Pharaone og hans þenørum. Og allt vatnid árennar umbreittest í blód,

21. Og fiskarner í ánne dóu, og vøtnenn lycktudu ílla, so ad Egyptsker menn gátu eigi drucked vatned úr ánne, og þar vard blód í øllu Egyptalande.

22. Og þeir Egyptsku tøframenn gerdu og slíkt hid sama med sínum særingum. Og Pharaonis hiarta forherdtist, so ad hann hlydde þeim eigi, so sem Drottinn hafde talad.

23. Og Pharao snere ser, og geck heim, og let ser eigi til hiarta ganga

24. Enn aller Egyptsker menn grófu ser brunna epter vatne, kringum ána, til ad drecka, þvi þeir gátu eigi druckid af þvi vatne, sem í ánne var.

25. Og so lidu siø samfellder dagar, ad Drottinn sló vøtninn.

## 8. Capitule.

1. Drottinn sagde til Mose, gak inn fyrer Pharaonem, og seig þu til hans; so seiger Drottenn. Lát mitt folk fara, so þad meige þiona mer.

2. Enn ef þú villt eigi gera þad, siá, þá vil eg plága þitt land, frá þeim eina landsenda og til annars, med pøddum,

3. So ad fliótid skal vella upp pøddum, og þær skulu skrída upp, og koma í þitt hús, í þitt svefnherberge, í þína reckiu, og í hús þinna þionustu=manna á medal þíns folks, og í þinn bakstursofn, og í þitt deig.

4. Og pøddurnar skulu skrída uppá þig, og uppá þitt fólk, og uppá alla þína þenara.

5. Og Drottinn mællte vid Mosen, seig þú til Aarons, rettu þína hønd út med þínum staf, yfer læke og strauma og støduvøtu, og lát pøddur koma yfer Egyptaland.

6. Og Aaron rette út sína hønd yfer vøtnenn í Egyptalande, og þar komu upp pøddur, so ad huldest allt Egyptaland,

7. Og tøframennerner gerdu slíkt hid sama med sínum særingum, og letu pøddur koma yfer Egyptaland.

8. Þá kallade Pharao á Mosen og Aaron, og sagde, bided Drottenn fyrer mer, ad hann taki þessar pøddur frá mer, og frá mínu folke, þá vil eg láta folked fara, so þad mege færa forner Drottne.

9. Moses sagde, hafdu þá æru fyrer mer, og kved á, nær eg skuli bidia fyrer þer, og fyrer þínum þenurum, og fyrer þínu folke, ad pøddurnar verde útreknar frá þer og þínu húse, og blífe alleinasta í rennande vøtnum.

10. Hann sagde, á morgun. Hann sagde, epter þvi sem þú hefir sagt, uppá þad, ad þú skallt vita, ad þar er eingenn, so sem Drottinn vor Gud.

11. So skulu pøddurnar takast frá þer, frá þínu húse, og frá þínum þionustu mønnum, og frá þínu folke, og skulu alleinasta vera í rennande vøtnum.

12. So geingu þeir Moses og Aaron fra Pharaone, og Moses kallade til Drottins, um pøddurnar, sem hann hafde lofad Pharaoni.

13. Og Drottinn gerde so, sem Moses hafde sagt. So dóu pøddurnar í húsunum í bæunum, og á økrunum,

14. So þeir søfnudu þeim samann her og hvar í storhrúgur, og landed lycktade þar af.

15. Enn er Pharao sá, ad hønum

var hvíld gefenn, þá vard hans hiarta forherdt, og hann hlydde þeim eigi, so sem Drottinn hafde sagt.

16. Og Drottinn mællte vid Mosen, seig þú til Aarons, rettu þinn staf út, og liosta í dupt jardarennar, so þar verde lys yfer allt Egyptaland.

17. Þeir gerdu so. Og Aaron útrette sína hønd med sínum staf, og sló í dupted á jørdunne: so komu þegar lys á menn og fenad: allt dupt í landenu vard ad lúsum, í øllu Egyptalande.

18. Tøframennerner gerdu eins líka med þeirra særingum, ad þeir kæmú lúsum upp, enn þeir gátu eigi. Og lysnar voru bæde á mønnum og á fenadenum.

19. Þá søgdu tøframennerner til Pharaonem, þetta er Guds fingur. Og Pharaos hiarta vard forherdt, so ad hann hlydde þeim eigi, so sem Drottinn hafde sagt.

20. Og Drottinn mællte vid Mosen, stattu upp á morgun snemma, og far til fundar vid Pharaonem, siá! hann mun ganga til vatnsins, og seigdu so til hans; so seiger Drottinn: lofadu lyd mínum ad fara, so hann meige þiona mer.

21. Enn ef þú gerer þad eigi, siá! þá skal eg láta koma allshátt-ada illa orma yfer þig, þína þenara, þitt folk, og þitt hús, so ad øll hús Egyptalands skulu fyllast af ormum, so akrarner og hvad sem á þeim er.

22. Enn á þeim deige vil eg gera serlegann hlut vid land Gosen, þar sem mitt folk er, ad þar skulu enger ormar vera: so ad þú viter, ad eg em Drottinn allstadar á jørdunne.

23. Og eg vil setia frelsan á millum míns folks og þíns lyds, á morgun skal þad tákn ske.

24. Og Drottinn gerde so. Og þar kom fiølde orma í Pharaos hús, í hans þenara hús, og so yfer allt Egyptaland, so ad landed spilltest af ormum.

25. Þá let Pharao kalla Mosen og Aaron, og sagde; fared og fórnfæred ydrum Gude her í lande.

26. Moses svarade; ei má so vera, ad ver gerum so. Þvi ver mundum þá í fórner færa Egyptskra manna andstyggder Drottni Gude vorum: siá! ef ver offrudum Egyptskra andstyggdum, fyrer þeirra augum, mundu þeir þá eigi lemia oss íhel med grióte?

27. Ver vilium ganga þriggia daga leid burt hedann á eydemørk, og færa fórner Drottni, vorum Gude, so sem hann hefir boded oss.

28. Þá sagde Pharao; eg vil láta ydur fara, so þer fornfæred til Drottins ydars Guds á eydemørku, þó med þvi mote, ad þer ferdest ei leingra í burt, og bided fyrer mer.

29. Moses svarade, siá! þegar eg kem út frá þer, þá vil eg bidia Drottinn, ad þesser ormar skulu takast frá Pharaone og hans þenurum, og hans folke, á morgun, enn prette mig eigi optar, so þú láter eigi folked fara, og gera Drottne offur.

30. Og Moses geck út frá Pharaone, og bad til Drottins.

31. Drottinn veitte þad sem Moses bad, og tók ormana í burt frá Pharaone, frá hans þenurum, frá hans folke, so þar var eigi einn epter.

32. Enn Pharao forherdte sitt hiarta þá enn, og let eigi folked fara.

## 9. Capitule.

1. Drottinn mællte vid Mosen; gack burt ínn fyrer Pharaonem og seigdu til hans: so seiger Drottinn

Ebreſkra manna Gud; leyfdu minu folke ad fara og þiona mier.

2. Enn ef þú neitar ad láta þá burt fara, og hamlar þeim frammvegis.

3. Siá! þá ſkal hønd Drottins koma yfer þitt fe á mørkenne, yfer heſta, yfer aſna, yfer ulfallda, yfer uxa, yfer ſaude, med einnre hardla þungre dreyſottu.

4. Og Drottinn mun gera furdanlegann hlut, millum Iſraelis hiardar og Egyptaranna. Og þar ſkal ecke deya af øllu þvi ſem Iſraelis børn eiga.

5. Og Drottinn ſette tímann til, og ſagde; á morgun mun Drottinn gera þetta á jørdunne.

6. Og Drottinn gerde þad ad morgne, ad allur Egyptalands fenadur dó, en þar dó ecki af fe Iſraelis barna.

7. Og Pharao ſende þar epter, og ſiá! þá var þar ecke dautt af Iſraels fe. Enn Pharaos hiarta var forhardnad, ſo hann gaf eigi folkenu burtfararleyfe.

8. Þá mællte Drottinn vid Moſen og Aaron; taked yckar hendur fullar med øſku af ofnenum, og Moſes ſkal dreyfa henne í lopt upp fyrer Pharao,

9. Ad þár falle dupt yfer allt Egyptaland, og ad þar kome ſvartar illſku blødrur, bæde á menn og fenad, yfer allt Egyptaland,

10. Og þeir tóku øſku af ofnenum, og gengu fyrer Pharaonem. Og Moſes dreifde øſkunne í lopt upp. Þá komu ſvartar illſku blødrur, bæde á menn og ſo fenad,

11. So ad tøframennerner gátu eigi ſtaded fyrer Moſe, ſøkum þeirra vondra kauna, þvíad þeſſe illſkukaun voru ſo vel á galldramønnunum, ſem á øllum ødrum Egyptſkum mønnum.

12. Enn Drottinn forherdte hiarta Pharaos, ſo ad hann hlydde þeim eigi, ſo ſem Drottinn hafde ſagt Moſe.

13. Þá mællte Drottinn vid Moſen; á morgun ſnemma ſkalltu upp ríſa, og gack fyrer Pharaonem og ſeigdu til hans, ſo ſeiger Drottinn Ebreſkra manna Gud, láttu mitt folk fara í burt, og þiona mer,

14. Ellegar vil eg í þeſſu ſinne ſenda allar mínar plágur yfer ſialfann þig, yfer þína þiona, og yfer þitt folk, ſo ad þú ſkallt fá ad vita, ad minn líke er eingenn í øllum løndum.

15. Þvíad eg vil útretta mína hønd, og lioſta þig, og þitt folk med dreyſott, ſo þú verder afmádur af jørdunne.

16. Og ad víſu hefi eg þar fyrer uppvaked þig, ad eg vil ſyna minn krapt á þer, ſo ad útbereſt mitt nafn um alla verølld.

17. Þú tredur enn nú mitt folk under þer, og villt ei leyfa þvi burt ad fara,

18. Siá! eg vil á morgun í þetta mund láta rigna eitt yfred ſtort hagl, ſo alldrei mun jafnſtort komed hafa ſídan Egyptaland var fyrſt grundvallad, ínn til þeſſa dags.

19. Þvi ſend nú út, og tak í vakt þinn fenad, og allt þad þú hefir á akre. Þvíad allt þad úte verdur ſtadt, og eigi er í hús ínnláted, menn og fenadur, þad mun drepaſt ef ad hagled fellur yfer þá.

20. Hver ſem ottadeſt Drottins ord af Pharaos þenurum, hann let ſína þenara og ſinn fenad flya í hús.

21. Enn þeir ſem eigi letu Drottins ord falla ſer til hiarta, þeir letu þenara ſína og kvikfe vera á akre.

22. Þá mællte Drottinn vid Moſen; rett þína hønd upp í móte himnenum, ſo ad hagl drífe yfer

allt Egyptaland, yfer menn, yfer fenad, og yfer allar jurter á mørkenne í Egyptalande.

23. Og Moses upprette sinn staf á móte himnenum, og Drottinn let þegar reidarþrumur koma, og hagle rigna, so ad ellde lyste nidur á jørdena. So let Drottinn rigna hagl yfer Egyptaland,

24. So ad hagl og elldur for so grimmlega til samans, ad soddann hafde alldrei fyrr sked í ølln Egyptalande, sídann þad var fyrst bygt.

25. Þetta hagl sló nidur allt þad sem var á akrenum, bæde menn og fenad, og jurter akursins, so ad brotnudu øll tre nidur á mørkenne í øllu Egyptalande,

26. Enn í lande Gosen kom ecke hagl, þar sem Israels børn biuggu.

27. Þá sende Pharao bod út, og let kalla til sín Mosen og Aaron, og sagde til þeirra; eg hefe enn nú ad þessu finne syndgast; Drottinn er rettlátur, enn eg og mitt folk erum ógudleger,

28. Bided Drottinn, ad soddan Guds hagle og reidarþrumum linne, þá vil eg láta ydur burt fara, so ad þer skulud eigi vera her leingur.

29. Moses sagde til hans, þegar eg ser út af borgenne, þá vil eg retta mínar hendur upp til Drottins, þá mun linna bæde hagle og reidarþrumum, so þú skallt vita, ad jørdenn er Drottins.

30. Enn vel veit eg, ad þú og þíner þenarar óttest eigi fyrer Gude, sem er Drottinn.

31. So slóust nidur bæde línakrar og bygg-akrar, þvi bygged var vaxed til axa, og hørenn hafde knappana feinged,

32. Enn hveite og rúgur var eigi nidur slegeed, þviad þau voru seint sád.

33. Moses geck frá Pharaone út af stadnum, og upprette sínar hendur til Drottins, so linnte reidarþrumunum og haglenu, og regned draup eigi leingur á jørdena.

34. Og sem Pharao fornam, ad regnenu, reidarþrumunum, og haglenu linnte, þá syndgadest hann enn meir, og hann forherdte sitt hiarta, hann og hans þenarar.

35. So vard Pharaos hiarta forherdt, ad hann let eigi Israels børn fara, so sem Drottinn sagde fyrer Mosen.

## 10. Capitule.

1. Og Drottinn mællte vid Mosen; far inn fyrer Pharaonem, þvi eg hefe forherdt hans hiarta, og so hans þenara, ad eg gere þesse mín tákn á medal þeirra,

2. So þú meiger kunngera þad fyrer eyrum þinna barna og barnabarna, hvad eg hefe frammkvæmt í Egyptalande, og hvernenn eg hafe audsyndt mín teikn á medal þeirra, ad þer skulud vita, ad eg em Drottinn.

3. So gengu nú Moses og Aaron fyrer Pharaonem, og søgdu til hans; so seiger Drottinn Ebreskra manna Gud: hversu leinge villtu standa í móte, ad audmykia þig fyrer mer; lát mitt folk fara og þiona mer?

4. Enn viler þú eigi láta mitt folk fara, siá! þá vil eg á morgun láta eingesprettur koma allstadar,

5. So þær hyle landed, so menn skulu eigi melga siá jørdena. Og þær skulu uppeta allt þad sem epter var og biargad vard fyrer haglenu, og þær skulu eta øll ydar grænu tre á mørkenne,

6. Og þær skulu uppfylla hús þín, allra þinna þenara hús, og allra Egyptskra manna hús, so ad hverke þíner fedur, ne forfedur skulu sodd-

ann sed hafa, frá þeim tíma þeir fæddust á jørdena, og inn til þessa dags. Og hann snere ser í burt, og geck út frá Pharaone.

7. Þá søgdu Pharaos þenarar til hans; hversu leinge skulum ver vera hermed plágader? lát þetta folk fara, so þad meige þiona Drottni, sínum Gude: eda villtu ádur so leinge reyna þetta, þar til ad Egyptaland er fordiarfad?

8. Og Moses og Aaron voru kallader til baka aptur, inn fyrer Pharaonem. Þá sagde hann til þeirra. Farid af stad, og þioned Drottne ydrum Gude. Enn hverer eru þeir sem burt skulu fara?

9. Moses sagde; ver vilum fara med ungum og gømlum, med sonum og dætrum, nautum og saudum, þviad ver eigum ad hallda Drottne eina hátíd.

10. Þá sagde hann til þeirra, o, iá, se so Drottinn med ydur, skyllda eg leifa ydur og þar til ydar børnum í burt ad fara? siáed þar, hvert þer hafed eigi vondt í sinne?

11. Eigi so, helldur þer karlmenn, fared þer, og þioned Drottni, þviad þar um hafed þer bebed. Og þeir voru útreknir frá Pharaone.

12 Þá mællte Drottinn vid Mosen: rettu þína hønd yfer Egyptaland, epter eingesprettum, ad þær kome yfer Egyptaland og uppete allt alldine í landenu, med øllu þvi sem epter var undann haglenu.

13. So rette Moses sinn staf yfer Egyptaland, og Drottinn let koma austannvind allann þann dag, og alla þá nott uppá landed: og ad morgne færde þesse austannvindur eingespretturnar framm.

14. Og þær komu yfer allt Egyptaland, og fellu nidur í øllum áttum Egyptalands, so miøg margar, ad slíkt hafde þar alldrei fyrr sked, og ei helldur mun ske,

15. Þvi þær huldu landed, og þad sortnade af þeim, og þær upp átu allt gras í landenu, og allann ávøgst triánna, sem ad stódu epter hagled, og þar var ecke grænt epter á triánum, eda grasenu á akrenum, yfer allt Egyptaland.

16. Þá kallade Pharao Mosen og Aaron fliotlega til sín, og sagde: eg hefe syndgast í móte Drottne, ydrum Gude, og so ydur,

17. Fyrerláted mer mín misverk, líka nú í þessu sinne, og bided Drottenn, ydar Gud, ad hann vile nú ad eins taka þennann dauda frá mer.

18. Hann geck út frá Pharaone, og bad til Drottins.

19. Þá snere Drottinn vindenum, til eins sterks vestannvinds, hann upptók eingespretturnar, og kastade þeim í þad rauda haf, so þar var eige ein epter neinstadar í øllu Egyptalande.

20. Enn Drottenn forherdte Pharaos hiarta, so hann leysde eige Israels børnum burtu ad fara.

21. Og Drottinn mællte vid Mosen, rettu þína hønd til himens, ad þar verde so miked mirkur í øllu Egyptalande, ad menn mege þreyfa á þvi.

22. Og Moses uprette sína hønd til himens; þá vard þar so svart mirkur í þriá daga, um allt Egyptaland,

23. Ad eingenn sá þar annann, og ei helldur stód nockur upp af þeim stad, sem hann var staddur í þriá daga, enn hiá øllum Israels børnum, þar þau biuggu, var biart.

24. Þá kallade Pharao Mosen, og sagde, fared hedann og þioned Drottni, enn láted alleinasta ydar

naut og saude vera epter: ydar børn mega fara med ydur.

25. Moses sagde: Þú mátt og gefa oss offur, og brenne-forn, ad gera Drottni Gude vorum.

26. Vort kvikfe skal fara med oss, og eigi verdi ein klauf epter, Þvi ver munum taka af vorre eign, sem Þorf gerest til Drottins, vors Guds Þionustu. Þvi ver vitum eigi, med hveru ver skulum Þiona Drottni, fyrr enn ver komum til Þess stadar.

27. Enn Drottinn forherdte Pharaos hiarta, so ad hann villde eigi leyfa Þeim burt ad fara.

28. Og Pharao sagde til hans: far frá mer, og varast ad koma her epter fyrer mín augu, Þviad á hverjum Þeim deige sem Þú kemur í augsyn mer, Þá skalltu deya.

29. Moses svarade: sem Þú mællter; eg vil eigi framar meir koma fyrer Þín augu.

## 11. Capitule.

1. Og Drottinn mællti vid Mosen, eg vil enn nú láta eina plágu koma yfer Pharaonem og Egyptaland, epter Þad mun hann leyfa ydur burt ad fara, og hann mun eigi alleinasta láta ydur fara, helldur mun hann reka ydur í burt.

2. Þar fyrer seig Þú nú folkenu, ad hver karlmadur bide sinn nábúa, og hver kvinna sína grannkonu um silfurker og gullker,

3. Þviad Drottinn mun gefa folkenu nád fyrer Egyptskum. Og Moses vard miøg mikelsháttar madur í Egyptalande, fyrer Pharaos Þenurum og fyrer folkenu.

4. Og Moses sagde, so seiger Drottinn: um midia nott vil eg ganga út í Egyptalande,

5. Og aller frumburder í Egyptalande skulu deya, frá Pharaos frumgetna syne, sem situr á hans stóle, og til frumgetins sonar ambáttarennar, sem er á bak vid kvernena, og allur frumgetnadur fenadarins.

6. Og Þar skal koma eitt miked óp í øllu Egyptalande, hvers líki alldrei hefir vered, og ei skal verda.

7. Enn á medal allra Israels barna skal eigi einn hundur geya, hverke hiá mønnunum ne fenade, so Þer vited hvera grein Drottinn gerer á millum Egyptskra manna, og Israels.

8. Þá skulu aller Þesser Þíner Þenarar koma ofann til mín, og falla mer til fóta, og seiga: far Þú burt, og allt Þad folk sem Þer er undergefed, epter Þad vil eg í burtu fara. Og hann geck miøg reidur burt frá Pharaone.

9. Og Drottinn mællte vid Mosen; Pharao hlyder ydur eigi, uppá Þad, ad mørg tákn skulu ske í Egyptalande.

10. Og Moses og Aaron gerdu øll Þesse tákn fyrer Pharaone. Enn Drottinn forherdte hans hiarta, so ad hann villde eigi leyfa Israels børnum burt ad fara af sínu lande.

## 12. Capitule.

1. Drottinn mællte vid Mosen og Aaron í Egyptalande, og sagde.

2. Þesse mánudur skal vera hinn fyrste manudur á medal ydar, og á hønum skulud Þer uppbyria mánade ársins.

3. Taled til alls almúgans af Israel, og seiged: á tíunda deige Þessa mánadar, skal hver húsbonde taka eitt lamb fyrer sitt hús, iá, eitt lamb fyrer hvert hús,

4. Enn ef Þeir eru eigi so marger í húse, ad Þeir gete uppeted lambid, Þá skal hann taka sinn næsta nágranna til sín, Þar til ad Þeir eru

so marger, ad þeir gete upp eted lambid.

5. Enn þer skulud taka þad lamb semengenn lyte hefir, eitt hrútlamb, árs gamallt, þad skulud þer taka af lømbunum edur af kidunum.

6. Og þad skulud þer geyma til fiórtanda dags í þeim mánude, og hver høpur í øllum Israel skal slátra þvi á millum tveggia aptna.

7. Og þeir skulu taka af blódenu, og rióda þvi á báda dyrastafena, og á þad efsta dyratred þess hussins, þar þeir eta þad inne.

8. Og þá somu nott skulud þer eta þad kiøt sem steikt er vid elld, og ósyrt braud med beisku sallte.

9. Þer skulud eigi eta þad hrátt, og eigi soded í vatne, helldur steikt vid elld, med þess høfde og fótum og inniflum.

10. Eigi skulud þer leyfa nockud þaraf til morguns, enn ef nockud gengur af til morguns, þad skulud þer uppbrenna í ellde.

11. Og so skulud þer þess neyta; þer skulud vera gyrdter um lendar ydrar, og hafa skó á ydrum fótum, og staf í ydrum høndum, og þer skulud eta þad, so sem þeir ed sliotlega vilia ferdast, þvi þad er Drottins Passah.

12. Þviad eg vil fara í gegnum Egyptaland, þessa somu nott, og drepa allann frumburd í Egyptalande, bæde á medal manna og fenadar. Og eg vil audsyna mína refsing á øllum skúrgodum Egyptskra manna, eg sem em Drottinn.

13. Og þad blód skal vera ydur til teikns, á þeim húsum þar sem þer inne erud, ad þegar eg se blódid, þá vil eg ganga framm hiá ydur, og þar skal eingenn plága koma á ydur, sem ydur fordiarfe, pær eg slæ Egyptaland.

14. Og þann dag skulud þer hallda til minningar, og hann skulud þer hallda Drottni helgann, til einnrar hátídar, þer og aller ydrer epterkomendur til æsinnlegrar veniu.

15. Osyrt braud skulud þer eta í siø daga, sem er, þann fyrsta dag skal eigi vera syrt braud í ydrum húsum. Hver sem etur súrt braud, frá þeim fyrsta deige, allt til þess siøunda, hans sál skal upprætast af Israel.

16. Sá fyrste dagur skal vera helgur, ad þer komed þá til samans, sá siøunde skal og vera helgur ad þer komed þá til samans; ecke ersíde skulud þer fremia á þeim døgum, utann þad sem til matgerda heyrer, handa allshättudum sálum, þad meged þer ad eins gera fyrer ydur.

17. Og þer skulud hallda osyrdra brauda (dag) þvi rett á þann sama dag færda eg ydur her af Egyptalande, þar fyrer skulud þer, og aller ydrir epterkomendur hallda þennann dag til einnrar æsinnlegrar stickanar.

18. Þann siortanda dag í mánadenum, ad kvolld, skulud þer ósyrd braud eta, og til þess tuttugasta og fyrsta dags í sama mánade ad aptne.

19. So ad eigi sinnest syrd braud í ydrum húsum á þeim siø døgum. Þvi hver sem etur syrd braud, hans sál skal upprætast frá Israelis samkundu, hvert hann er helldur útlendur edur innbyggiare í landenu.

20. Þar fyrer eted alldeilis ecki syrt braud, helldur eins-kostar ósyrt braud, í øllum ydrum hybylum.

21. Þá kallade Moses alla þá ellstu af Israel til samans, og sagde til þeirra; utveled og taked sau=

de, serhver til síns heimkynnis, og slátred Passah,

22. Og taked eitt bindine med ysop, og dreped þvi í bloded, þad sem er í munnlaugenne, og rióded þvi framann á dyratred, og so á báda dyrastólpana, og eingenn manneskia skal fara út fyrer dyrnar á sínu huse, fyrr enn ad morgne.

23. Þviad Drottinn vill fara umkring, og plága þá Egyptsku. Og þar hann ser bloded uppa dyratrenu, og á bádum dyrastólpunum, þá mun hann ganga framm hiá þeim dyrum, og láta eigi fordiarfarann koma í ydar hús, ad plága (ydur).

24. Þar fyrer hallt þessa skickan, fyrer þig, og þín børn æfinnlega.

25. Og þegar þer komed í þad land, sem Drottinn mun gefa ydur, so sem hann hefir sagt, þá halldid þessa þionustu.

26. Og þá ydar børn seiga til ydar, hvad er þetta fyrer þionustu gerd?

27. Þá skulud þer seiga, þad er Drottins páska-offur, sem geck framm hiá Israelis fólke í Egyptalande, þá hann plágade Egyptarana, enn frelsade vor hús. Þá hneigde fólked sig, og gerde lotning,

28. Og Israelis børn gengu í burt, og gerdu so sem Drottinn hafde boded Mose og Aaron.

29. Og um midnáttar tíma, sló Drottinn allann frumburd í Egyptalande, frá Pharaos frumgetna syne, sem sat á hans stóle, allt til frumgetnings þess hins fángada sem sat í mirkvastofu, og allann frumburd fenadarins.

30. Þá stód Pharao upp þá sømu nótt, og aller hans þenarar, og aller Egyptsker, og þar gerdest eitt miked hróp í Egyptalande, þviad þar var eigi eitt hús, ad ei være daudur madur inne.

31. Og hann kallade á Mosen og Aaron um nottena, og sagde, taked ydur upp, og fared burt frá mínu folke, þer og Israels børn, fared og þioned Drottni, líka sem þer hafed sagt.

32. Taked med ydur ydar saude og naut, so sem þer hafed talad. Fared af stad og blessed mig líka.

33. Og þeir Egyptsku þreyngdu folkenu, og ráku þad hastarlega af landenu, þvi þeir søgdu; ver munum aller deya.

34. Og folked bar med ser hrátt deig ser til fædslu, ádur enn þad gat súrnad, og bundu þad í sínum klædum, og báru þad á ørlum ser.

35. Og Israels syner høfdu gert sem Moses sagde, og beded af Egyptskum um silfurker, og gullker, og klæde.

36. Drottinn hafde og gefed folkenu nád fyrer þeim Egyptsku, so ad þeir lánudu þeim þetta, og þeir gerdu þá Egyptsku vidskila þar vid.

37. So ferdudust Israels syner frá Rameses og til Suchoth, sexhundrud þusund manna, fotgøngulids, ad auk barna,

38. Og margt annad almúgafolk sem ad fylgde þeim, so og sauder og naut, og miøg miked kvikfe.

39. Og þeir bøkudu ósyrdar køkur, af þvi hráu deige, sem þeir báru af Egyptalande, þvi þad var eigi súrnad, sokum þess ad þeir voru so fliotlega rekner af Egyptalande, og máttu þar eigi leingur tefia, og þeir høfdu ecke annad tilbúed ser til nestis.

40. Israels børn høfdu þá búed í Egyptalande fiøgurhundrud og þriatíu ár.

41. Og þá þesse ár voru lidenn,

Págeck öllur Drottins her af Egyptalande, á einum deige.

42. Þar fyrer hallda menn Drottni þá nátt, þviad hann leidde þá af Egyptalande; þá nott skulu Israelis børn Drottni hallda, þeir og þeirra epterkomendur.

43. Og Drottinn mællte vid Mosen og Aaron; þesse er vísa páskahalldsins: eingenn Utlendingur skal eta þar af.

44. Enn se þar nockur þræll, sá sem keyptur er, láte hann sig umskera, so má hann eta þar af.

45. Eingenn Utlendingur, sa sem leigumadur er ordenn í landenu, ne verkseliare, skal eta þar af.

46. Menn skulu eta þad í einu húse: þer skulud ecke bera af ketenu út af húsenu, þer skulud og eckert þess bein í sundur briota.

47. Øll Israelis samkunda skal þetta so gera.

48. Se þad so, ad þar búe nockur Utlendingur hiá þer, og vile hallda Herrans páska, þá skal hann umskera allt karlkins, og þá má hann koma og gera þad. Og skal hann þá vera so sem einn annar innlendur í landenu, þviad einginn óumskorenn skal eta þar af.

49. Þesse løg skulu eins vera fyrer þá, sem ódalborner eru í landenu, so sem fyrer þá framande, sem búa á medal ydar.

50. Og øll Israels børn gerdu so sem Drottinn hafde boded Mose og Aaron.

51. So leidde Drottinn Israelis børn af Egyptalande á þeim sama deige med þeirra her.

## 13. Capitule.

1. Og Drottinn mællte vid Mosen, og sagde.

2. Helged mer allann frumburd sem fyrst opnar allsháttar modurlíf, á medal Israels barna, bæde af mønnum og fenade, þviad þad heyrer mer til.

3. Og Moses sagde til folksins, vered minnuger þessa dags, á hverjum þer gengud út af Egyptalande, úr þrældomsins húse, ad Drottinn leidde ydur út þadann med sterkre hende, þar fyrer skalltu eigi eta súrdeig.

4. I dag erud þer útgeingner í þeim mánude Abib.

5. Og nú þegar Drottinn hefir innleidt þig í land þeirra Cananita, Hethita, Amorita, Hevita, Jebusita, hvert hann sór þínum forsedrum, ad gefa þer, þad land sem miolk og hunang flytur í, þá skalltu hallda þessa þionustugerd, í þessum mánude.

6. Siø daga skalltu eta ósyrt braud, og á þeim siøunda deige er Drottins hátíd.

7. Þar fyrer skalltu eta ósyrd braud, í siø daga, so ad ecke súrdeig ne súrt braud siáest hiá þer, í øllum þínum landsálfum.

8. Og þer skulud seiga þetta fyrer ydrum sonum, á þeim sama deige: þetta hølldum ver þessvegna, sem Drottinn gerde oss, þá ver fórum af Egyptalande.

9. Þar fyrer skal þetta vera þer eitt teikn í þinne hende, og ein minning fyrer þínum aúgum, so ad Drottins løgmál se í þínum munne, ad Drottinn útleidde þig af Egyptalande, med einne sterkre hønd,

10. Þar fyrer halldeð þessa skickan, á sínum tíma árlega.

11. Og þá Drottinn hefir innleidt þig í Cananita land, sem hann sór þer og þínum forfedrum, og þá hann hefir gefed þer þad,

12. Þá skalltu frástkilia Drottni til handa allt þad sem opnar sínnar

modur kvid, og þann fyrsta frumburd af fenadenum, sem karlkins er

13. Frumburd asnans skalltu leysa med einum saud: enn leyser þú hann eigi, þá brjót hann úr hálslidunum; enn allann mannlegann frumgetnad medal þinna barna, þá skalltu leysa.

14. Og þá þitt barn spyr þig ad í dag eda á morgun, hvad er þad? þá svara þú hønum so, Drottinn leidde oss af Egyptalande, frá þvi þrældoms húse, med einne sterkre hende.

15. Þviad þá Pharao var forherdtur, til ad láta oss lausa, þá sló Drottinn íhel alla frumburde í Egyptalande, frá mannanna frumburde, og allt til fenadarins frumburdar. Þar fyrer offra eg Drottne allt þad sem fyrst opnar sinnar modur kvid, þad sem er karlkins, og eg leyse frumburd minna barna.

16. Og þetta skal vera þer eitt merke í hende, og til einnrar minningar fyrer þínum augum, þad Drottinn hefir leidt oss af Egyptalande, med einne sterke hende.

17. Sem Pharao hafde láted folked burt fara, þá leidde Gud þá eigi á þann veg, sem liggur í gegnum landed Philistinorum, sem þeim var nálægastur, þvi Gud hugsade; ske má ad folked meige idrast, þá þad ser bardagann, og snúe ser um aptur í Egyptaland.

18. Þar fyrer leidde hann folked í kring, á þann veg í gegnum eydimørkena, út med þvi rauda hafe. Og Israels børn fóru vopnud af Egyptalande.

19. Og Moses tók Josephs bein út med ser, þviad hann hafde teked einn eyd þar uppa af Israels børnum, og sagt; Gud mun vitja ydar, þvi færed mín bein burt med ydur.

20. So reistu þeir út frá Suchoth, og settu sínar herbúder í Etham, fremst í eydemørkenne.

21. Og Drottinn geck fyrer þeim á deigenum í einum skystolpa, og leidde þá rettleidis, og á nottunne í einum elldstolpa, og lyste þeim ad reisa bæde dag og nott.

22. Sá skystolpe veik eigi frá folkenu á deigenum, ei helldur elldstolpenn á nottunne.

## 14. Capitule.

1. Og Drottinn mællte vid Mosen, og sagde.

2. Tala þú til Israels barna, og seig þú þeim; ad þeir snúe aptur, og sete sínar herbúder hiá þeim dal Hiroth, sem liggur millum Migdol og siáfarins, gegnt Baalzephon, og sete síner herbúder þar þvert yfer frá, hiá siónum.

3. Þvi Pharao mun seiga um Israels børn; þeir fara villt í landenu, eydemørkenn hefir innebyrgt þá.

4. Og eg vil forherda hans hiarta, so ad hann skal epterfør veita þeim. Og eg vil vinna prís á Pharaone, og á allre hans magt. Og Egyptsker skulu reyna, ad eg em Drottinn. Og þeir gerdu so.

5. Og sem kongur Egyptalands frette þad, ad folked var burt flúed, þá umsneriſt hiarta hans og hans þenara, vid folked, og søgdu; þvi høfum ver þad gert, ad ver leysdum Israel ad fara í burt, so ad þeir þione oss eigi?

6. Og hann let spenna fyrer sína vagna, og tók sitt folk med ser,

7. Hann tók sexhundrud útvaldra vagna, og hvad annad af vøgnum sem var í Egyptalande, og hershøfdingiana yfer allann sinn her.

8. Þvi Drottinn herdte Pharaonis hiarta, kongsins af Egypta-

lande, so ad hann sókte epter Isra-
els børnum. Enn Israels børn
voru útgeingenn med upprettre
hende.
9. So soktu nu þeir Egyptsku
epter þeim, med hestum, vøgnum,
og riddaralide, og med øllum Pha-
raos her, og nádu þeim vid hafed,
þar sem þeir høfdu sett sínar her-
búder, í dalnum Hiroth, gegnt
Baalzephon.
10. Og þá Pharao nálgadest
þá, þá upphófu Israels børn sín
augu, og siá! þá komu þeir Egypt-
sku, sækiande epter þeim. Og þeir
óttudust hardla miøg, og kølludu
til Drottins,
11. Og søgdu til Mosen: voru
þar eigi grafer í Egyptalande, ad
þú þurfter leida oss burt til þess
ad deya her í eydemørku? þvi ger-
der þú oss þetta, ad þú leidder oss
af Egyptalande?
12. Er þad eigi þad, sem ver søgd-
um til þín, í Egyptalande; lát oss
vera kyrra, og þiona helldur E-
gyptskum, þviad betra er ver þion-
um þeim, enn ad ver deyum í eydi-
mørku?
13. Þá sagde Moses til lydsins,
óttest eigi, standed. støduger, og
siáed hvilíkt frelse Drottinn mun
í dag vid ydur framm koma. Þviad
Egyptska menn þessa, sem þer siáed
í dag, þá munud þer eigi siá meir
ad eylífu.
14. Drottinn mun beriast fyrer
ydur, þer skulud vera kyrrer.
15. Drottinn mællte vid Mosen:
þvi kallar þú til mín? seig þú til Is-
raels barna, at þeir ferdest áframm.
16. Enn upphef þú þinn staf,
og rett hønd þína yfer sióenn, og
skiptu hønum í sundur, so ad Is-
raels børn meige gánga þar í gegn-
um á þurru.
17. Siá! eg vil forherda hiarta
Egyptskra manna, so ad þeir skulu
fara epter ydur, so vil eg vinna prís
á Pharaone, og á allre hans magt,
vøgnum, og riddaralide,
18. So ad Egyptsker skulu rey-
na, ad eg em Drottinn, nær eg hefe
unned prís á Pharaone, og hans
vøgnum, og riddaralide.
19. Þá upptók sig Guds eingell,
sá sem geck undann Israels her, og
hann fór tilbaka vid þá, og sa sky-
stolpe tók sig og so frá þeirra aug-
lite, og geck á bak vid þá,
20. Og kom í millum herlids
þeirra Egyptsku, og Israels hers.
Enn þad var eitt myrkt sky upplys-
ande nóttena, so þesser og hiner
kunnu ei ad komast til samans alla
þá nótt.
21. Nú sem Moses útrette sína
hønd yfer hafed, þá let Drottinn
þad í burt hverfa fyrer einn sterk-
ann austann-vind, alla þá nótt, og
gerde sióenn þurrann, og vatned
brast í sundur.
22. Og Israels børn gengu inn
midt í hafed á þurru. Og vatned
var þeim sem múrveggur til hægre
og vinstre handar.
23. Þeir Egyptsku soktu epter,
og gengu inn midt í hafed epter
þeim, aller hestar Pharaos, vagnar
hans, og reidmenn.
24. Enn þá morgunvakann kom,
þá leit Drottinn yfer her Egypt-
skra, af elldstolpanum og skyenu,
og skaut skelk í herlid þeirra,
25. Og let þeirra vagna ganga
af hiólunum og kollkastade þeim
hastarlega. Þá søgdu Egyptsker:
flyum frá Israel, Drottinn strider
fyrer þeim, mote Egyptskum.
26. Þá sagde Drottinn vid Mo-
sen, rettu út þína hønd yfer hafid,
so ad vatned falli aptur yfer þá
Egyptsku, yfer þeirra vagna og
riddaralid,

27. So útrette Moses sína hønd yfer siòenn, og siórenn fell aptur í sinn farveg, ádur enn dagade, og kom í mót þeim Egyptsku, þá þeir flydu. So steypte Drottinn þeim midt í midiu hafe,

28. Og vatned kom aptur, og hulde bæde vagna og riddara, og alla Pharaos magt, sem fared hafde epter þeim, í hafed, so þar vard eigi einn epter af þeim.

29. Enn Israels børn gengu þurrum fótum midt í gegnum hafed, og vatned stód þeim sem múrveggur til hægre og vinstre handar.

30. So leyste Drottinn Israel á þeim deige frá Egyptskra manna hende. Og þeir sáu þá Egyptsku liggia dauda í siorunne,

31. Og þá volldugu hønd sem Drottinn hafde audsynt á þeim Egyptsku. Og folked óttadest Drottinn, og trude hønum og hans þion Mose.

## 15. Capitule.

1. Þá saung Moses og Israels børn Drottne þennann lofsaung, og søgdu. Eg vil lofsyngia Drottni, þvi hann hefir gert eitt dádsemdar verk. Hestum og vøgnum hefir hann í hafid nidur steypt.

2. Drottinn er minn stirkur, og lofsaungur, og hann er mitt hiálpræde, hann er minn Gud, hann vil eg prísa, hann er míns føðurs Gud, hann vil eg upphefia.

3. Drottinn er sá rette strídsmadur, Drottinn er hans heite,

4. Hann kastade Pharaos vøgnum, og hans magt nidur í hafid. Hans útvalder høfdingar suku í hafenu rauda,

5. Og underdiúped hulde þá, þeir suku til botns sem steinar.

6. Drottinn! þín hægre hønd gerer miklar dádsemder. Drottinn! þín hægre hønd sló nidur fiandmennena.

7. Þú kollvarpader þínum mótstødumønnum, med þinne mikellre dyrd, þvi þá þú letst lausa þína reide, þá fortærde hún þeim so sem stráum.

8. Þá þú blest, gaf vatned sig upp, og vatnsføllinn stódu sem ønnur hrúga, og underdiupinn velltu upp vatnenu midt í siónum.

9. Óvinurenn hugsade, eg vil sækia epter þeim, og høndla þá, og skipta herfánge, og sedia reide mína á þeim. Eg vil rickia mínu sverde, og mín hønd skal fordiarfa þá,

10. Þá letstu þinn vind blása, og siórenn hulde þá, og þeir suku nidur, sem bly í miklum vatnsføllum.

11. Drottinn! hver er þinn líke á medal gudanna? hver er þinn líke, sem so er máttugur, heilagur, hrædelegur, loflegur, og so dádsamlegur í sínum verkum, sem þú?

12. Þá þú útretter þína hægre hønd, þá gleipte jørdinn þá.

13. Þu hefir leidt þitt folk med þinne miskunsemd, sem þú hefir endurleyst, og hefir leidt þá med þínum stirk, til þíns heilaga bústadar.

14. Þá þiodernar heyrdu þad, þá bifudust þær, og ángist kom yfer Philisteos.

15. Þá urdu hrædder høfdingar Edom, og þeir volldugu í Moab skulfu, og aller innbyggarar í Canaan urdu duglauser.

16. Lát hrædslu og óttta falla yfer þá, fyrer þinn sterka arm, ad þeir stirdne sem steinar, þar til þitt folk, Drottinn! er framm hiá komed, þar til þitt folk er framm umkomed, þad sem þú hefir útvegad.

17. Leid þá þarínn, og gródur

set þá, uppá þínu erfdaskalle, sem þú Drottinn gerder þer til eins heimilis, til þíns helgedoms, Drottinn, sem þín hønd hefir tilreidt.

18. Drottinn mun kongur vera, um allder og ad eylífu.

19. Þvi Pharao dró inn í hafed med hestum, vøgnum, og riddaralide. Drottinn let hafed falla aptur yfer þá. Enn Israels børn gengu á þurru, midt í gegnum hafid.

20. Og Maria spákona, syster Arons, tók eina bumbu í sína hønd, og kvinnurnar allar gengu út epter henni í dans med bumbum.

21. Og Maria saung fyrer þeim: látum oss lof syngia Drottni, þvi hann hefir gert einn dyrdlegann gerning, og nidurkastade manne og hesti í hafid.

22. Og Moses let Israels børn ferdast burt frá hafenu rauda, til þeirrar eydemerkur Sur. Þá gengu þeir þriá daga í eydemørku, og fundu ecke vatn.

23. Þá komu þeir til Mara, enn þeir gátu eigi drucked af vatnenu í Mara, þvi þad var miøg beiskt, þar fyrer kalla menn þann stad Mara.

24. Þá møglade folked mót Mose, og sagde; hvad skulum ver drecka?

25. Enn hann kallade til Drottins, og Drottinn vísade hønum til eins tres, þvi kastade hann í vatned, og vatned vard sætt. Þar sette hann þeim løg og rett og freistade hans,

26. Og sagde; ef ad þú hlyder røddu Drottins Guds þíns, og gerer þad sem rett er fyrer hønum, og ef þú lætur hans bodord þer í eyrum loda, og helldur allar hans skickaner, þá vil eg engann af þeim siukdomum leggia uppa þig, sem eg lagde á Egyptaland, þviad eg em Drottinn þinn grædare.

## 16. Capitule.

1. Og þeir komu til Elim; þar voru tolf vatnsbrunnar, og siøtíu pálmvidartre, og þeir settu þar sínar herbúder hiá vøtnunum.

1. Sídann fóru þeir frá Elim, og allur manusiølde Israels barna, til þeirrar eidemerkur sin, sem liggur á millum Elim og Sinai, á simmtanda deige í þeim ødrum mánade, epter þad þeir voru burtfarner af Egyptalande.

2. Og allur søfnudur Israels barna møglade í mót Mose og Aaron, í eydemørkenne,

3. Og søgdu: Gud gæfe, ver hefdum dáed, fyrer Drottins hønd, í Egyptalande, þá ver sátum þar yfer ketkøtlum, og høfdum gnægd brauds ad eta. Þvi þar fyrer hafed þer leidt oss út á þessa eydemørk, ad þer villdud láta allann almugann deya af sullte.

4. Þá mællte Drottinn vid Mosen, siá, eg vil láta rigna braude af himne til ydar, og folked skal fara út ad safna hvern dag, so miked sem þad þarf til atvinnu á þeim deige, so ad eg reyne, hvert þad gengur epter mínum bodordum, edur eigi.

5. Enn á siøtta deige skulu þeir búa sig til ad safna tvøfalldt so miked þann dag, sem þeir annars pløgudu samann ad safna dagslega.

6. Moses og Aaron søgdu til Israels barna: í kvølld skulud þer vita, ad Drottinn hefir útleidt ydur af Egyptalande,

7. Og á morgun skulud þer siá Drottins dyrd, þviad hann hefir heyrt ydran kur í gegn Drottne.

Hvad erum vid, ad þer mogled í gegn ockur?

8. Moses sagde framarmeir: Drottinn skal gefa ydur ket ad eta í kvølld, enn nóg braud á morgun, þviad Drottinn hefir heyrt ydart møgl, sem þer møglad hafed í gegn hønum, þvi hvad erum vid? Þer møgled eigi í gegn oss, helldur í gegn Drottne.

9. Og Moses sagde til Aarons, seig til Israels barna samkundu: komed her frammfyrer Drottinn, þvi hann heyrde ydart møgl.

10. Og sem Aaron talade þetta til allra Israels barna samkundu, þá snern þeir ser í móte eydemørkenne, og siá, þar sást dyrd Drottins í einu skye.

11. Og Gud sagde til Mosen,

12. Eg hefe heyrt møgl Israels barna. Seig þeim: í kvølld skulud þer fá kiøt ad eta, enn á morgun skulud þer sediast af braude, og þer skulud vita, ad eg em Drottinn ydar Gud.

13. Ad apthe komu vaktalar, og huldu herbúdernar. Enn ad morgne lá þar hela allt umkring herbúdernar,

14. Enn þegar helann var burtu, siá! þá lá þar á eydemørkenne (nockud) kringlott og líted, þvilíkast sem hrímfrost á jørdu.

15. Enn þegar Israels børn sáu þad, sagde hver til annars, þad er man, þvi þeir vissu eigi hvad þad var. Þá sagde Moses til þeirra, þad er þad braud sem Drottinn hefir gefed ydur ad eta.

16. Enn þetta er Guds skipan, safne hver þar af, so miked, sem hann hefir þørf til ad eta, og taki einn Omor fyrer serhvert høfud, epter sálnanna tale, sem hann hefir í sinne tialldbúd.

17. Og Israels børn gerdu so, og samansøfnudu sumer meira, enn sumer minna.

18. Enn þá þad var mællt med Omor, þá feck sá ecke, afhlaups sem meira hafde safnad, sá og eigi midur sem minna hafde safnad, helldur hafde hver safnad so miklu, sem hann þurfte ser til atvinnu.

19. Og Moses sagde til þeirra, eingenn skal leifa þar nockud af til morguns.

20. Enn þeir hlyddu eigi Mose, sumer dróu af og leifdu til annars dags; enn þad vall møbkum, og úldnade. Þár fyrer vard Moses reidur vid þá.

21. So søfnudu þeir hvern morgun þar af, so miked, sem hver kunne ad eta. Enn þá solenn skein heitt, þá brádnade þad.

22. A þeim siøtta deige søfnudu þeir tvøfølldu braude, iá, tveimur Omor fyrer serhvern einn. So gengu aller þeir yppurstu af safnadenum til Mosen, og gerdu hønum þad kunnugt.

23. Þá sagde hann til þeirra, þad er þad sem Drottinn sagde: á morgun er þad sabbaths dagur heilagrar hvíldar Drottins; hvad þer viled baka, þad baked, og hvad þer viled matgera, þad matgered, enn allt þad sem afgangs er, þad láted vera, so þad meige geyma til morguns.

24. So letu þeir þad vera til morguns, so sem Moses baud þeim; og þad úldnade eigi, og eigi madkade þad.

25. Þá sagde Moses: eted þad í dag, þviad í dag er Drottinns sabbath, á þessum deige finned þer þad eigi á mørkenne.

26. Sex daga skulud þer safna þvi, enn sá siøunde dagur er sabbaths dagur, og á þeim deige finnst þad eigi.

27. Enn á þeim siøunda deige, gengu nockrer af folkenu út, ad safna þvi samann, enn þeir fundu ecke.

28. Þá sagde Drottinn vid Mosen: hversu leinge tregdist þer vid ad vardveita mitt løgmál, og mín bodord?

29. Siá! Drottinn hefir gefed ydur sabbathsdagenn, og þar fyrer gefir hann ydur á þeim siøtta deige tveggia daga fædslu; þvi skal hver einn vera heima á sínu heimele, og eingenn fara út af sínum stad, á þeim siøunda deige.

30. So hellt folked þann siøunda dag.

31. Og Israels hús kallade þetta Man, og þad var líka sem Coriander fræ, og hvítt, og þess smeckur var so sem hveitesalla med hunange.

32. Og Moses sagde; þetta er þad sem Drottinn baud; fylled einn Omor þar af, so ad þad geymist framm til ydar epterkomanda, so ad menn meige siá þad braud, med hveriu eg fædde ydur á eydemørku, þá eg útleiddi ydur af Egyptalande.

33. Og Moses sagde til Aaron, tak þer eina føtu, og legg einn Omor fullann af Man þar í, og lát þad vardveitast fyrer Drottne, til ydar epterkomanda.

34. So sem Drottinn baud Mose, so let Aaron þad sama vardveitast, hiá vitnesburdenum.

35. Og Israels børn átu Man í fiørutígu ár, þangad til þeir komu í þad land, þar sem þeir skylldu búa. Þeir átu og man, þar til komu í landamerke Canaans lands

36. Enn einn Omør er tíunde partur Epha.

## 17. Capitule.

1. Og siá allur almúge Israels barna fór úr eydemørku sín, þeirra dagleid, sem Drottinn baud þeim, og settu sínar herbdúer í Raphidim, þar feck folked ecke vatn ad drecka.

2. Og þeir þráttudu vid Mósen, og søgdu: gef oss vatn ad drecka. Moses sagde til þeirra: þvi þrátted þer so gegn mer, þvi freisted þer Drottins?

3. Og þá folked þyrste so epter vatnenu, þá møglade þad í gegn Mose og sagde: hvar fyrer letstu oss fara af Egyptalande, til þess, ad þú lætur nú vor børn og fénad deya her af þorsta?

4. Þá kallade Moses til Drottins, og sagde: hvad skal eg gera vid þetta folk? innann skams munu þeir lemia mig grióte.

5. Drottinn sagde til hans: gack framm undann folkenu, og tak nockra af ølldungum Israelis med þer, og tak þinn staf í þína hønd, med hverum þú slóst á vatned, og gack af stad.

6. Siá! eg vil þar standa fyrer þer, yfer einum steine í Horeb, liosta þú med stafnum á steinenn, þá skal renna vatn af hønum, so ad folked drecki. Og Moses gerde só, fyrer ølldungum Israelis,

7. Og menn køllludu þann stad Massa og Meriba, vegna þráttanar Israelis barna, og þar fyrer, ad þeir høfdu so freistad Drottinns, og sagt: hvert mun Drottinn vera á medal vor, eda eige?

8. Þá kom Amalech, og hellt orustu vid Israel í Raphidim.

9. Og Moses sagde vid Josua: utvel oss lid, far ut og berst vid Amalech, enn eg vil standa efst uppá fiallenu á morgun, og hafa Guds staf í minne hende.

10. Og Josua gerde so sem Moses sagde hønum, og bardest vid Amalech. Enn Moses,

Aaron og Hur gengu efst uppá fialled,

11. Og alla þá stund sem Moses hellt sínum höndum upp, þá vann Jsrael, enn þá hann let sínar hendur nidur síga, þá vann Amalech.

12. Enn Moses hendur voru þungar, þar fyrer tóku þeir einn stein, og letu under hann, og hann sette sig þar uppá. Enn Aaron og Hur studdu hans hendur, sinn á hveria hlid, og hans hendur mæddust eigi allt til solarsalls.

13. Og Josua lagde Amalech, og hans folk med hvøssu sverde.

14. Og Drottinn sagde til Mose, skrifa þú þetta í bok til minnis, og biod þad eyrum Josue, þviad eg vil so afmá Amalech under himnenum, ad eingenn minnest leingur á hann.

15. Og Moses byggde þar eitt alltare, og kallade þad Drottins, Merki.

16. Þvi hann sagde, þetta er eitt teikn hiá Drottins hásæte, ad Drottinn mune beriast móte Amalech frá einne ættkvísl til annarar.

## 18. Capitule.

1. Nú sem Jethro kennemadur af Madian, mágur Mose, heyrde allt þad sem Gud hafde gert Mose og sínu folke Jsrael, hversu ad Drottinn hafde útleidt Jsrael af Egyptalande,

2. Þá tók hann Zephora Moses kvinnu, hvera hann hafde aptur sendt,

3. Og tvo hennar sonu, hinn fyrste het Gersom, þvi hann sagde: eg var einn gestur í framande lande.

4. Og sá annar Elieser, þvi hann sagde: míns føđurs Gud hefir vered mín hiálp, og hefir vardveitt mig frá sverde Pharaos.

5. Og sem Jethro mágur Moses kom, og hans syner og kvinna, í eidemørkena til hans, þar sem hann hafde sett sínar herbúder, hiá Guds fialle,

6. Þá let hann seiga Mose: eg Jethro mágur þinn em komenn til þín, og þín kvinna, og báder hennar syner med henne.

7. Þá geck Moses út í móte hønum, og laut hønum, og myntest vid hann, Og er þeir høfdu heilsast, þá gengu þeir inn í tialldbúdena.

8. Moses kunngerde sínum máge allt þad, sem Drottinn hafde gert Pharaoni, og þeim Egyptsku fyrer Jsraels skulld, og so allt þad erfide, sem þeir høfdu haft í ferdenne, og hvernenn Drottinn hafde frelsad þá.

9. Þá gladdest Jethro fyrer alla þessa goda hlute, sem Drottinn hafde gert Jsrael, og frelsad þá af Egyptskra manna hende.

10. Og Jethro sagde, blessadur se Drottinn, sem ad frelsade ydur af Egyptskra manna hende, og af hende Pharaonis. Hann kann ad frelsa sitt folk af Egyptskra manna hende,

11. Nú veit eg, ad Drottinn er meire, enn aller adrer guder, þar fyrer, ad þeir frømdu drambseme mót þeim.

12. Og Jethro Mose mágur tók brennefórner, og offrade Gude. Þá kom Aaron, og þeir allér ølldungar Jsraels, ad eta braud med máge Moses, fyrer Gude.

13. Og annars dags sette sig Moses til ad dæma folked, og folked stód fyrer hønum frá morgne til aptans.

14. Þegar hans mágur sá allt þad hann gerde vid folked, þá sagde hann: hvad er þad þú gerer vid folk-

ed? þvi situr þú alleina, og allt folked stendur fyrer þer frá morgne og til kvøllds?

15. Moses svarade hønum: folked kemur til mín og leitar Guds atkvædis.

16. Þvi nær nockur mál gerast þeirra á mille, þá koma þeir til mín, ad eg dæme um þær saker, sem til falla á mille serhvers manns, og hans náunga, og ad eg kenne þeim Guds setninga, og hans løgmál.

17. Hans mágur mællte til hans; þad er ey gott, sem þú gerer,

18. Þetta erfide gerer þig þreytt: ann, og þad folk sem med þer er: sú idia er þer ofþung; þú mátt þvi eigi einnsamann af stad koma,

19. Þar fyrer hlyd minne røddu; eg vil leggia þer rád, og mun Gud vera med þer. Annast þú folked í þvi sem Gude til kemur, og ber framm þeirra málefne fyrer Gud,

20. Set þeim løg og rett; kenn þeim veigenn, sem þeir skulu á ganga, og þau verk sem þeir skulu gera.

21. Enn siá þig um á medal allsfolksins, epter nockrum valenkunnum mønnum, sem óttast Gud, og eru sannorder, og hata ágyrnd, og set þessa yfer þá, suma yfer þusund, suma yfer hundrad, suma yfer fimmtíu, og suma yfer tíu,

22. Ad þeir ætíd dæme folked. Enn se þar nockur stor mál, þá lát þau koma fyrer þig, enn lát þá dæma øll ønnur smærre mál, so verdur þer þetta lettbærara, þegar þeir bera med þer.

23. Ef þú villt nú þetta gera, þá kanntu ad frammkvæma þad sem Gud bydur þer, so má og allt þetta folk koma med fride til sinna heimkynna.

24. Moses hlyddе ordum síns mágs, og gerde allt þad sem hann sagde,

25. Og utvalde froma menn af øllum Israel, og sette þá til høfdinga yfer folked, suma yfer þusund, suma yfer hundrad, suma yfer fimmtíu, og suma yfer tíu,

26. Ad þeir skylldu alltíd sitia doma yfer folkenu. Enn øllum stór-málum skylldu þeir skióta til Mosen, enn þeir siálfer skylldu dæma øll smærre mál.

27. So let Moses sinn mág ferdast heim aptur í sitt land.

## 19. Capitule.

1. A þridia mánade epter þad sem Israels børn voru út-gengenn af Egyptalande, þá komu þeir á þeim deige í eydemørku Sinai,

2. Þvi þeir ferdudust frá Raphidim, og villdu til eydemerkur Sinai, og þeir settu sínar herbúder í sama stad í eydemørkenne, gegnt fiallenu.

3. Enn Moses geck upp til Guds. Og Drottinn kallade hann af fiallenu og sagde: so skalltu seiga til Jacobs hús, og kunngera Israels børnum.

4. Þer hafed sed, hvad eg gerde þeim Egyptsku, og hverninn eg hefe bored ydur á arnarvængum, og tekid ydur til mín.

5. Ef þer viled hlyda minne røddu, og hallda minn sáttmála, þá skulud þer vera mín eigenn eign, af øllu folke, þvi øll jørdenn er mín.

6. Og þer skulud vera mer eitt kennemannlegt konungs ríke, og eitt heilagt folk. Þessi eru þau ord, sem þú skallt seiga Israels børnum.

7. Moses kom, og kallade samannølldunga lydsins, og lagde framm fyrer þá øll þesse ord, sem Drottinn hafde boded.

8. Þá svarade allur lydurenn under eins, og sagde, allt þad sem

Drottinn hefir sagt, þad vilium ver gera. Og Moses sagde Drottni aptur ord folksins.

9. Þá sagde Drottinn til Mose: siá! eg vil koma til þín í einu þickn skye, uppa þad ad folked meige heyra mín ord, þau sem eg tala vid þig, og trúe þer æfinnlega sídann. Og Moses sagde Drottni frá ordum lydsins.

10. Og Drottinn mællte vid Mosen: far til folksins, og helgadu þad í dag, og á morgun, ad þeir þvoi sín klæde,

11. Og seu búner á þridia deige, þvíad á þeim þridia deige mun Drottinn ofann stíga yfer Sinai fiall, fyrer øllu folke.

12. Settu folkenu eitt takmark umhverfis fiallid, og seig þú til þeirra: vared ydur, ad þer ganged eigi uppa fialled, og komed eigi helldur ydst vid þad, þvi hver sem kemur vid fialled, hann skal dauda deya.

13. Eingenn manns hønd skal snerta hann, helldur skal hann med grióte lemiast eda med skotum í hel skiotast, hvert þad er helldur madur eda kvikende, þá skal þad eigi lifa, enn þegar bláser er í basunu, þá skulu þeir fara til fiallsins.

14. Og Moses geck ofann af fiallenu til folksins, og helgade þad, og þeir þvodu sín klæde.

15. Hann sagde til þeirra: vered búner á þeim þridia deige, og komed eigi nær kvinnum.

16. Og þegar sá þride dagur kom, og liost var orded, þá komu reidarþrumur, og elldingar, og eitt þickt ský á fialled, og lúdursins hliod vard ákaflega sterkt, so ad allt folked vard hrædt, þad sem var í herbúdunum.

17. Og Moses leidde folked út af herbúdunum til móts vid Gud, og þad stód under fiallenu.

18. Enn allt Sinai fiall rauk, þviad Drottinn fór ofann yfer fialled med ellde, og einn reykur geck upp af því, so sem reykur af ofne, og allt fialled skalf ogurlega.

19. Og lúdursins hliód vard stærra og stærra. Moses talade, og Gud svárade hønum hátt.

20. Og sem Drottinn var ofann komenn yfer fialled Sinai, á efsta hvirfel fiallsins, kallade hann Mosen efst uppá fialled, og Moses geck upp.

21. Þá sagde Drottinn til hans: far þú ofann, og vitna fyrer folkenu, ad þad brióteft eigi hingad til Drottins, ad siá hann, so ad eige falle fiølde af þeim.

22. Enn prestarner, sem ganga til Drottins, þeir skulu helga sig, so ad Drottinn lioste þá eigi.

23. Og Moses sagde til Drottins: folked mun eigi stíga uppá Sinai fiall, þviad þú vottader fyrer oss, og sagder: settu eitt takmark umhverfes fialled, og helga þad.

24. Drottinn sagde til hans: far, og stíg ofann, þú, og Aaron med þer, skulud stíga upp; enn kennemennerner og folked skulu eigi framm briótast ad stíga upp til Drottins, so hann eigi skade þá.

25. Og Moses geck ofann til folksins, og bodade þvi þetta.

## 20. Capitule.

1. Og Drottinn talade øll þesse ord.

2. Eg em Drottinn þinn Gud, sem útleidde þig af Egyptalande, af þvi þrældoms húse.

3. Þú skallt eigi hafa annarlega Gude fyrer mer.

4. Þú skallt engenn bilæte gera þer, eda nockra líking, epter þvi sem er á himnum uppe, eda á jørdu nidre, eda þvi sem er í vøtnønum under jørdunne.

5. Þú skallt eigi tilbidia þau, og eigi þiona þeim, þvi eg em Drottinn þinn Gud, einn vandlætande Gud, vitiande ránglætes fedranna á børnunum, í þridia og fiorda lid, þeirra sem mig hata,

6. Enn gerande miskunsemi á mørgum þusundum, þeim sem mig elska, og mín bodord vardveita.

7. Þú skallt eigi vanbruka Drottins þíns Guds nafn, þvi eigi mun Drottinn ohegndann vera láta þann sem misbrúkar hans nafn.

8. Minnst þú á sabbathsdagenn, ad þú helger hann.

9. Sex daga skalltu erfida, og vinna alla þína vinnu,

10. Enn sá siøunde dagur er Drottins þíns Guds sabbathsdagur, þá skallt þú eigi verk vinna, hverke þinn sonur, ey helldur þín dotter, eigi þinn þræll, eigi þín ambátt, eigi þitt kvikke, eige helldur nockur útlendskur, sem er innann þinna borgarhlida.

11. Þviad á sex døgum gerde Drottinn himen og jørd, og sióenn, og allt þad sem þar inne er, og hann hvíldest þann siøunda dag, þar fyrer blessade Drottinn sabbathsdagenn, og helgade hann.

12. Þú skallt heidra þinn fødur, og þina modur, so þú lánglífur verder í þvi lande, sem Drottinn Gud þinn gefur þer.

13. Þú skallt eigi íhel slá.

14. Þú skallt eigi hórdom drígia.

15. Þú skallt eigi stela.

16. Þú skallt eigi bera falskann vitnisburd móte þínum naunga.

17. Þú skallt eigi gyrnast þíns náunga hús. Þú skallt eigi gyrnast þíns náunga kvinnu, eigi hans þræl, eigi hans ambátt, eigi uxa edur asna, eda nockud þad sem hans er.

18. Og allt folked sá reidarþrumur, og elldingarnar, og hliód lúdursins, og fialled riukanda. Og sem þeir sáu þetta, þá flydu þeir, og gengu langt í burtu,

19. Og søgdu til Mosem: tala þú vid oss, ver vilium vera þer hlyduger, og lát Gud eigi tala vid oss, annars deyum ver.

20. Moses sagde til folksins: óttest eigi, þvi Gud er komenn til þess, ad hann vill reyna ydur, og ad hans ótte se fyrer ydrum augum, so ad þer syndgest eigi.

21. Og folked stód langt í burtu frá. Enn Moses geck til þokunnar, í hverre Gud var.

22. Og Drottinn sagde til hans, so skalltu seigia til Israels barna: þer hafed sed, ad eg hefe talad vid ydur af himnum,

23. Þar fyrer skulud þer enga Gude af silfre edur gulle gera ydur fyrer mer.

24. Þu skallt gera mer eitt alltare af jørdu, og þar uppá skalltu offra þinne brennefórn, og þacklætis fórn af þínum nautum og saudum. Þvi í hverum stad sem eg skicka, ad vera skule minning míns nafns, þangad vil eg koma til þín, og blessa þig,

25. Viler þú gera mer alltare af steinum, þá skalltu eigi byggia þad af høggnum steine; þvi láter þú kníf koma yfer þad, þá saurgar þú þad.

26. Þú skallt eigi ganga upp trøppur til míns alltaris, so ad þín blygdann opennberest þar eigi.

## 21. Capitule.

1. Þetta er sá lagarettur, sem þú skallt leggia fyrer þá.

2. Ef þu kauper einn Ebreskann þræl, þá skal hann þiona þer sex ár, enn á þvi siøunda áre skal hann fara friáls og laus frá þer.

3. Kome hann ei kongadur til þín, þá skal hann og ókvæntur fara frá þer.

4. Enn ef hann kemur kongadur til þín, þá skal hans kona fara burt med hønum. Enn ef hans Herra hefir gefed hønum eina konu, og hafe hún fædt sonu eda dætur, þá skal kvinnann og børnenn heyra hans Herra til, enn hann skal fara burtu konulaus.

5. Enn ef þrællenn seiger: eg elska minn herra, og so mína kvinnu og børn; eg vil eigi vera friáls,

6. Þá skal hans Herra leida hann inn fyrer Gudaná, og hallda hønum vid dyrnar, eda vid dyrastafenn, og stinga í gegnum hans eyra med áli, sídann skal hann vera hans þræll æfinnlega.

7. Ef nockur selur sína dottur til ambáttar, þá skal hún eigi fara í burt so sem þrælar.

8. Þocknest hún eigi sínum Herra, og hann vill eigi hiálpa henne til eigennords, þá skal hann láta hana lausa. Enn eigi skal hann hafa valld til ad selia hana nockrum Utlendum mønnum, þvi hann forsmáde hana.

9. Enn ef hann hefir fastnad hana syne sínum, þá gere vid hana so sem sína dottur.

10. Enn ef hann gipter hønum adra, þá skal hann eigi korta nockud af hennar koste, klædnade og ægtaskylldu.

11. Enn gere hann eigi þetta þrennt, þá skal hún med frelse fara burt fyrer ecki.

12. Hver hann lystur mann, so hann deyi, sá skal og dauda deya.

13. Enn hafe hann eigi seted um hans líf, helldur hefir Gud lated hann annars óforvarandis falla í hans hendur, þá vil eg setia þer einn stad, þangad sem hann skal flya,

14. Enn ef nockur misgerer med drambseme vid sinn náunga, og vegur hann svikſamlega, þá skalltu taka hann frá mínu alltare, so hann deye.

15. Sá sem lystur sinn fødur eda modur, hann skal dauda deya.

16. Sá sem stelur manne, og selur hann, so þad verde uppvíst um hann, hann skal dauda deya.

17. Sá sem bølvar fødur eda modur, hann skal dauda deya.

18. Ef menn þráttast á, og annar hver lystur annann med steine, eda knefa, og hann deyr þo eigi, helldur leggst í reckiu,

19. Ef hann rís upp, og gengur med staf úte, þá skal sá vera sýknsaka, sem hann sló, þo skal hann bitala hønum verkafall, og gefa læknis laun.

20. Ef nockur lyster sinn þræl eda ambátt med staf, so hann deyr undann hans høndum, þá skal hann líða refsing þar fyrer.

21. Enn ef hann lifer einn dag eda tvo, þadann af, þá skal hann eigi refsingum mæta, þvi (þræll og ambátt) þad er hans peningur.

22. Ef menn þráttast á, og lyster nockur kvidugа konu, so hún skilst vid hennar host, þo henne ad skadlausu, þá skal sá straffast med peninga giallde, epter þvi sem þeirrar kvinnu madur leggur á hann, og domendur dæma.

23. Enn hliótest skade þar af, þá skal hann láta líf fyrer líf,

24. Auga fyrer auga, tønn fyrer tønn, hønd fyrer hønd, fót fyrer fót,

25. Bruna fyrer bruna, sár fyrer sár, bláma fyrer bláma.

26. Ef madur lystur í auga á sínum þræl, eda ambátt, so þad forderfast, þá skal hann gefa hønum frelse fyrer hans auga.

27. So og líka, ef hann brytur

7 *

tønn úr Þræle sínum eda ambátt, þá skal hann gefa hønum frelse fyrer sína tønn.

28. Ef uxe stángar Mann edur kvinnu til bana, þá skal uxenn grytast íhel, og eigi skulu menn eta hann, og Þar med er eignarmadur uxans saklaus.

29. Enn hafe hann fyrr vanur vered ad stánga, og eignarmannenum var Þad sagt, og hann let eigi Þadann í frá vardveita hann, og hann stángar Mann eda kvinnu til bana, þá skal uxenn grytast íhel, og hans eignarmadur skal deya.

30. Enn verde hønum tilsagt ad bæta med fe, þá skal hann gefa so miked fyrer sitt líf, sem hønum verdur til-sagt.

31. Under sama dome skal hann liggia, hvert sem hann stángar son eda dottur Manns til bana.

32. Enn ef hann stángar nockurs Manns Þræl edur ambátt, þá skal sá, er á, gefa Þeirra húsbonda Þriátíu siclos silfurs, og uxenn skal grytast íhel.

33. Ef nockur madur opnar gryfiu, eda grefur grøf, og byrger ei aptur, og fellur Þar í uxe eda asne,

34. Þá skal sá sem gryfiuna gerdi, bitala annad aptur med peningum, Þeim er átte, enn hafa sialfur hid dauda.

35. Ef nockurs Manns uxe stángar annars uxa til bana, þá skulu Þeir selia Þann lifanda uxann, og skipta med ser Þeim peningum, og líka Þeim enum dauda.

36. Enn hafe hann stángad fyrre, og visse hann Þad, og eignarmadur let ei vardveita hann, þá skal hann giallda uxa fyrer uxa, enn hafa sialfur Þann dauda.

## 22 Capitule.

1. Ef madur stelur naute edur saud, og slátrar Þvi, eda selur Þad, þá skal hann giallda aptur fimm uxa fyrer einn, og fióra saude fyrer einn saud.

2. Ef Þiofur verdur tekenn, þá hann brytst í hús, og verdur hann Þar lostinn, so hann deyr, þá skal eingenn blóddomur ganga yfer vegandann.

3. Enn ef hann gerer Þad ad upprunnenne solu, þá skal blóddomur yfer veganda ganga. Þiofurenn skal skila Þvi aptur, hafe hann eigi, þá skal hann seliast fyrer sinn skuld,

4. Enn ef menn finna Þad Þiofstolna lifanda hiá hønum, hvert helldur Þad er naut, asne edur saudur, þá skal hann gefa Þad tvøfalldt aptur.

5. Ef nockur spiller akre edur víngarde, og lætur sinn fenad gera skada á annars akre, þá skal hann bæta skada aptur, af Þvi bestu, sem hann hefir á sínum akre, eda í sínum víngarde.

6. Ef elldur kviknar og kemur í Þyrna, og brenner bindene, eda Þad korn sem enn stendur á akre, þá skal sá skada bæta, sem elldinn kveikte.

7. Ef nockur selur sínum náunga peninga edur ønnur Þíng til vardveitslu, og verdur Þad stoled frá hønum úr hans húse, hittest Þiofurenn, þá skal tvígiallda Þad aptur,

8. Enn finnest Þiofurenn eigi, þá skal húsbondenn innleidast fyrer Godana, hvert hann hefir eigi lagt sína hønd á eign síns náunga.

9. Ef nockur gefur ødrum søk, fyrer nockurskonar órett, se Þad fyrer uxa eda asna, edur saud, eda klæde, eda fyrer nockurn annann hlut, Þann er horfed hefir, þá skal beggia Þeirra málefne koma inn fyrer Godana, og hvern sem Godarner dæma sakadann, sá skal tvígiallda Þad aptur sínum náunga.

10. Ef nockur selur sínum náunga til vardveitslu, annad hvert asna, uxa, saud, edur nockud annad kvikfe, og þad deyr fyrer honum, eda lestist, eda hverfur burt frá honum, so ad eingenn ser þad,

11. Þá skal þad koma til eins eyds, fyrer Drottne, þeirra á millum, ad hann hafe eigi lagt sína hønd á eign náunga síns, og þann eyd skal eignarmadurenn taka, og sá annar skal eigi bitala þad.

12. Enn ef þad er stolid í burt frá honum, þá skal hann bitala eignar mannenum skadann,

13. Enn ef dyr bítur íhel, þá skal hann koma þar ad vitnum, og eigi bitala.

14. Ef madur hefir fe til láns af sínum náunga, og þad lemst, edur deyr, so eignarmadurenn er eigi hiá, þad skal hann bitala.

15. Enn se eignarmadurenn þar hiá, þá skal hann eigi bitala þad, því hann leigde þad fyrer sína peninga.

16. Ef nockur lockar eina jungfrú, sem eigi er nockrum manne handfest, og liggur hann hana, þá skal hann gefa henne hennar morgungáfu, og taka hana ser til eigennkvinnu.

17. Enn vile hennar fader eigi gipta honum hana, þá skal hann vega henne út so miked fe, sem meyanna morgun-gáfa plagar ad vera.

18. Eigi skalltu láta galldrakonuna lifa.

19. Hver sem samblandast fenade, hann skal vissulega deya.

20. Hver sem fórner færer ødrum Gudum enn alleingsta Drottni hann skal forbannast.

21. Þú skallt eigi fefletta ne underþrickia þann útlenda, þviad þer hafed vered útlender í Egyptalande.

22. Þer skulud eigi mein gera eckium og fodurlausum bornum,

23. Ef þú gerer þeim mein, þá munu þau kalla til mín, og eg vil bænheyra þeirra kall,

24. Þá mun grimd mín reidast, so ad eg mun liosta ydur íhel med sverde, og eg mun láta ydrar kvinnur verda eckiur, og ydar børn fødurlaus.

25. Ef þú lánar mínu folke peninga, því sem fátækt er, hiá þer, þá skalltu eigi þreingia því til skada, eda leggia nockurt okur uppá þad.

26. Ef þú tekur klæde í pant, af þínum náunga, þá fá þú honum þad aptur fyrer sólar-fall,

27. Þviad hans klæde er alleinasta hulning hans líkama sem hann sefur í. Enn se þad so, hann kalli til mín, þá skal eg heyra hann, þviad eg em miskunsamur.

28. Þú skallt eigi Godum bøls bidia, og eigi lasta høfdingiann á medal þíns folks.

29. Þína gnægd af korni og víni skalltu eigi láta undann dragast. Þú skallt gefa mer þinn frumgetenn son,

30. Þad sama skalltu og gera af þínum nautum og saudum. Sio daga skal þad vera hiá sínne modur, enn þann áttunda dag skalltu gefa mer þad.

31. Þer skulud vera eitt heilagt folk fyrer mer, þar fyrer skulud þer eigi ket eta sem slited er af dyrum á akrenum; helldur kasted því fyrer hunda.

## 23. Capitule.

1. Þú skallt eigi trúa raungum kærumálum, og ger eigi þeim ógudlega nockra hiástod, so ad þú berer falskt vitne.

2. Þú skallt eigi fylgia fiølmenntum hóp til illgerda, og svara

þú eigi fyrer dóme, ad þú fylger þeim sem fleyre eru, og ganger so frá rettenum.

3. Þú skallt eigi fegra þann fátæka í hans málesne.

4. Ef þú mæter þíns óvinar uxa edur asna, sem villt fer, þá leid þú hann strax aptur til hans.

5. Siáer þú asna þíns óvinar liggia under byrde, vara þig, og lát hann eigi liggia, helldur forsoma giarnann þitt eiged fyrer þad.

6. Þú skallt eigi halla rettarfare hins fátæka, í hans søk.

7. Vertu langt frá lognum søkum. Þú skallt eigi slá þann meinlausa og rettláta íhel, þvi eg ályt eigi þann ógudlega.

8. Eigé skalltu giafer þiggia, þviad gáfurnar blinda þá siáendu, og umsnúa málesnum rettferdugra.

9. Þricked eigi nidur þeim framanda, þviad þer vited vel hiörtu hinnaUtlendsku,þviad þer hafed og veredUtlendingar á Egyptalande.

10. Sex ár skalltu ería jørdena og sá, og samansafna avøxtum jardar.

11. Þad siøunda áred skal hún liggia og hvíla sig, so ad þeir fátæku á medal þíns folks meige eta þaraf, og hvad þarepter verdur, þá lát villudyrenn á mørkenne eta þad. So skalltu og gera vid þinn víngard, og vidsmiørsvidargard.

12. Sex daga skalltu erfida, enn þann siøunda dag skalltu hallda helgann, so ad þinn uxe og asne meige hvíla sig, og ad þinnar ambáttar sonur, og sá framande meige endurnæra sig.

13. Allt hvad eg hefe sagt ydur, þad skulud þer hallda. Og þer skulud eige minnast á annara Guda nøfn, og þeir skulu eigi heyrast af ydrum munne.

14. Þer skulud hallda mer hátíder þrísvar á hveru áre, sem er, þess ósyrda braudsins hátíd.

15. So ad þú eter ósyrt braud á siø døgum, á þeim mánade Abib (sem eg baud þer) þvi þú fórst af Egyptalande þá sømu tíd. Enn ei skulud þer koma med tómum hondum fyrer mitt auglit.

16. Og þá hátíd hins fyrsta kornskurdar ávaxtarins, sem þú sáder á akrenum, og þá innburdar hátíd, nær áred er úte, þá þú hefir innbored þitt erfide af akrenum.

17. Þrísvar um áred skal allt þitt karlkin, byrtast fyrer drottnanda Drottni.

18. Þú skallt eigi fornfæra mitt offurs blód med súrdeige, og þad feita af minne hátíd skal eigi bída til morguns.

19. Þann fyrsta ávøgst af þínum jardargróda skalltu bera í þínsDrottinsGuds hús. Þú skallt eigi matgera kided, á medann þad sygur sína modur.

20. Siá! eg sende einn engel fyrer þer, sem skal vardveita þig á þínum veige, og leida þig til þess stadar, sem eg hefe tilreidt þer.

21. Þar fyrer gacktu varlega fyrer hans auglite, og hlyd hans røddu, og styggdu hann eigi, þviad hann fyrergefur eigi ydra misgerninga, og mitt nafn er í hønum.

22. Enn se þad so, ad þú heyrer hans rødd, og gerer allt þad eg seige þer, þá vil eg vera óvinur þinna óvinna, og mótstandare þinna mótstødu-manna.

23. Enn nær ad minn engell gengur fyrer þer, og leider þig inn til þeirra þióda, sem eru Amorei, Hethei, Pheresei, Cananei, Hevei, Jebusei, og eg eydelegg þá,

24. Þá skalltu eigi tilbidia þeirra Gude, ne þiona þeim, og eigi

helldur breita epter þeirra verkum, helldur skalltu nidurslá og sundurbriota þeirra skúrgod.

25. Enn Drottne ydrum Gude skulud þer þiona, so mun hann blessa þitt braud og þitt vatn. Og eg vil taka allann siukdom frá þer.

26. Par skal eigi vera ávartarlaust ne óbyria í þínu lande, og eg vil láta þig verda lánglífann.

27. Eg vil senda mínar ognanir undann þer, og gera allt folk hrædt, sem þú kemur til, og eg vil láta alla þína óvine flya fyrer þer.

28. Eg vil senda öflugur undann þer, þær skulu útryma fyrer þig þá Heveos, Cananeos, Hetheos.

29. Eigi vil eg útreka þá á einu áre fyrer þer, so ad landed verde eigi í eyde, og ad villudyrenn skulu eigi fiølgast í móte þer,

30. Eg vil útreka þá smámsamann frá þínu auglite, allt til þess þú vex og eignast landed.

31. Og eg vil setia þín landamerke fra því rauda hafe, og til Philisteanna hafs, og í frá eydemørku, og inn til vatnsfallsins. Pviad eg vil gefa landsins innbyggiara í þínar hendur, so ad þú skallt utreka þá frá þer.

32. Pú skallt eigi gera neina sátt vid þá, eda vid þeirra Gude,

33. Helldur lát þá eigi búa í þínu lande, so ad þeir komi þer ei til ad syndgast í móte mer, því ef þú þionar þeirra Gudum, þá skal þad verda þer til hneixlunar.

## 24. Capitule.

1. Og hann sagde til Mosen, gack upp til Drottins, þú og Aaron, Nadab og Abihu, og þeir siøtíu ølldungar í Israel, og falled framm langt frá.

2. Enn Moses skal einn samann uppstíga til Drottins, enn þeir adrer skulu eigi koma þar í nánd, folked skal og eigi helldur koma upp med hønum.

3. Moses kom, og sagde øll ord Drottins, og allann lagarettinn fyrer folkenu. Pá svarade allt folked med einne roddu og sagde: ver vilium gera epter øllum þeim ordum, sem Drottinn hefir sagt.

4. Pá skrifade Moses øll Drottins ord, og hann stód snemma upp um morgunenn, og byggde eitt altare under fiallenu, med tolf stólpum, epter tølu tolf kinkvísla Israels

5. Og sende unga Menn af Israels børnum, ad þeir skylldu fórnfæra Drottni brenneforner og þackætisforner, af nautum.

6. Og Moses tók halfpart af blódenu, og let þad í eina munnlaug, og ødrum helmingenum støckte hann yfer alltared.

7. Hann tók og sáttmálans bók, og las hana fyrer folkenu so þad heyrde, og þá þad svarade: ver vilium gera allt þad, sem Drottinn hefir boded, og vera hønum hlyduger.

8. Pá tók Moses blóded og støckte því á folked, og sagde: siáed! þetta er blód sáttmálans, hvern Drottinn hefir gert vid ydur, yfer øllum þessum ordum.

9. Og Moses, Aaron, Nadab, Abihu, og þeir siøtíu ølldungar af Israel, gengu upp,

10. Og sáu Gud Israels. Under hans fótum var ad siá þvilíkast sem fagur Saphirus, og so sem himen, þá hann er klár.

11. Og hann rette ei sína hønd yfer þá ølldungana af Israel. Og þá þeir høfdu skodad Gud, átu þeir og drucku.

12. Og Drottenn sagde til Mose: kom uppá fialled til mín, og

vert þar, og eg vil gefa þer stein=
spiölld, og løgmáled, og bodord=
enn, sem eg hefe skrifad, þau sem þú
skallt kenna þeim,

13. Þá stód Moses upp, og geck
uppá Guds fiall, og hans þenare
Josua med hønum,

14. Og sagde til ølldunganna:
vered her, þar til vid komum aptur
til ydar; siáed! Aaron og Hur eru
hiá ydur: falle nockur mál til, þá
láted þau koma fyrer þá.

15. Enn sem Moses kom uppá
fialled, þá hulde skyed fialled.

16. Og Guds dyrd byggde uppá
fiallenu Sinai, og hulde þad í sex
daga med skyenu, og kallade þann
siøunda dag af skyenu, á Mosen.

17. Og dyrd Drottins var ad
siá þvíllkast sem einn brennande
elldur, efst á fiallenu, fyrer auglite
Israels barna.

18. Og Moses geck midt inn í
skyed, og steuppá fialled, og var á
fiallenu fiørutíu daga og fiørutíu
nátta.

## 25. Capitule.

1. Og Drottenn mællte vid Mo=
sen, og sagde,

2. Seig þú Israels børnum, ad
þeir gefe mer eitt upplyptingar=
offur, og take þad af serhverum
manne, sem þad gefur viliuglega,

3. Þetta er þad upplyptingar=
offur, sem þer skulud taka af þeim,
gull, silfur, kopar,

4. Gult silke, skarlat, purpura,
hvítt silke, geita hár,

5. Raudar hrútagærur, greyf=
ingia skinn, þau treSetim,

6. Vidsmør til lampanna, jurt=
er til smyrsla, og til góds ilms,

7. Onyx steina, og adra inngreyp=
ta steina til líf=kyrtilsins, og til
briost=skiølldsins,

8. Og þeir skulu gera mer
einn helgedom, so eg búe á medal
þeirra.

9. Þann skulud þer gera epter
þeirre tialldbúdar mind, med øll=
um sínum umbúnade, so sem eg
mun vísa þer.

10. Gered eina ørk af triam
Setim; hún skal vera half þridiu
alnar ad leingd, halfrar annarar
ad breidd, og halfrar annarar al=
nar á hæd.

11. Hana skulud þer gylla med
hreinu gulle, bæde utann og inn=
ann; gera skalltu ofann um hana
koronu af gulle, allt í kring.

12. Þú skallt steypa fióra gull=
hringa, og setia í fiøgur horn ark=
arennar, tvo uppá hvera sídu.

13. Þú skallt gera steingur af
triam Setim, og búa þær utann
med gulli,

14. Og stínga þeim í hringana
á sídum arkarennar, ad bera hana
med,

15. Og þær skulu vera kirrar í
hringunum, og eigi takast af þeim.

16. Og þú skallt leggia í ørkena
þann vitnisburd, sem eg vil gefa
þer.

17. Þú skallt og gera einn nád=
arstól, af skíru gulle, halfrar þridiu
alnar langann, og halfrar annarar
alnar breidann.

18. Tvo Cherubim skalltu gera
af slegnu gulle, yfer bádum endum
nádarstólsins.

19. Sá einn Cherubim skal vera
á ødrum endanum, enn annar á
hinum ødrum,

20. So þar se Cherubim á bád=
um endum nádarstólsins. Og þess=
er Cherubim skulu útbreida sína
vænge ofann yfer, so ad þeir hyle
nádarstólenn med sínum vængium,
og hvers þeirra andlit skal standa
hvert í móte ødru, og þeirra andlit
skulu horfa á nádarstólenn. Og þú

skallt setia nádarstólenn ofann á ørkena,

21. Og leggia þann vitnisburd í ørkena, sem eg vil gefa þer.

22. Ur þeim stad vil eg votta fyrer þer, og tala vid þig, sem er af nádarstólnum, millum þeirra tveggia Cherubim, sem eru uppá vitnisburdar=ørkenne, allt þad sem eg vil bióda Israels bornum fyrer þig.

23. Þú skallt gera eitt bord af tre Setim, tveggia alna langt, og alnar breidt, og halfrar annarar alnar hátt.

24. Og búa þad allt med hreinu gulle, og þú skallt gera gull koronu þar ofan umkring,

25. Og eina list umkring einnrar þverhandar háfa, og gullkoronu ofan umkring listina.

26. Þú skallt og gera fióra gullhringa þar á, og setia þá í þau fiøgur horn bordsins hia þeim fiórum fótum,

27. Hartnær uppunder listenne skulu hringarner vera, ad stínga staungunum þar í, og ad bera borded med.

28. Og þú skallt gera steingurnar af triam Sitim, og búa þær utan med gulli, ad bera borded med.

29. Þú skallt gera fótinn, bikarana, kønnurnar, skálernar, af kláru gulle, af hveríum dryckiaroffred skal offrast.

30. Og þú skallt allt íd leggia skodunar braud á borded fyrer mer.

31. Þú skallt og gera eina kertastikn af kláru þicku gulle, þar skal vera á stiake, med greinunum, skálunum, knøppunum, og blomstrunum.

32. Sex pípur skulu ganga út af kertastikunne, þriar á hvera sídu.

33. Og hver pípa skal hafa þriar opnar skáler, knappa og blomstur. Þar skulu vera sex pípur á kertastikunne,

34. Enn stiakenn skal hafa fiøgur openn ker, med knøppum og blomstrunum,

35. Og einn knapp under hverium tveimur pípum, hverar sex ad ganga út af stiakanum.

36. Og bæde knapparner og pípurnar skulu ganga út af hønum. Og alltsamann þetta skal vera af kláru slegnu gulle.

37. Þú skallt gera og siø lampa þar ofan á, so ad þeir lyse hver í gegn ødrum,

38. Og liosasør og liosa sløckvarann, allt af kláru gulle,

39. Og þú skallt gera þad af einu hundradi klárs gulls, med øllu því sem þar heyrer til.

40. Og siá til, ad þú gerer þad epter þeirre mind sem þú sást á fiallenu.

## 26. Capitule.

1. Þú skallt gera tialldbúdena af tíu tiølldum, af hvítu tvinnudu silke, af gulu silke, af skarlate og purpura, og Cherubim skalltu gera kostulega þar uppá,

2. Hver dúkur skal vera átta og tuttugu álna langur, og fiøgra álna breidur, og þeir skulu aller tíu vera jafner.

3. Og skulu ætíd fimm festast til samans, hver vid annann.

4. Og þú skallt gera neslur af gulu silke í hveru horni dúkanna, þar sem þeir skulu festast til samans, ad ætíd sen fester tveir og tveir til samans í hornunum.

5. Þar skulu vera fimmtíu neslur á hverum dúk, so ad hvert meige festast vid anad.

6. Þú skallt gera fimmtíu gullkroka ad festa tiølldenn saman med, hvert vid annad, so þar verde ein tialldbúd af.

7. Þú skallt og gera eitt hárklæde af geitahære, yfer tialldbúdena af ellefu dúkum.

8. Og hver dúkur skal vera þriátíu alna langur, og fiøgra alna breidur og þesser ellefu dúkar skulu vera jafnstorer.

9. Fimm skalltu teingia til samans, og sex til samans, so þú gerer þann siøtta dúkenn tvøfalldann á framanverdre tialldbúdenne.

10. Og þú skallt gera fimmtíu lyckiur á jødrunum á hverum dúki, til ad festa þá saman med á endunum.

11. So skalltú og gera fimmtíu messingar króka, og láta krókana í lyckiurnar, so ad tiallded teingest saman med þvi, og verde ein tialldbúd.

12. Enn þeir dúkar, sem afgangs eru af tialldbúdenne, þá skalltu heingia halfvegis út yfer tialldbúdena,

13. Einnrar alnar sídt á bádar sídur, so ad þad sem afgengur skal vera vid hlid tialldbúdarennar, og þekia hana á bádar sídur.

14. Þú skallt og gera þak yfer þetta þak, af raudlitudum hrútaskinnum, og so enn eitt þak þar utanyfer, af greisingia skinnum.

15. Þú skallt og gera fialer til tialldbudarennar af triám Setim, sem standa meiga,

16. Tíu alna laung skal hver fiøl vera, og halfrar annarar alnar breid.

17. Og hver fiøl skal hafa tvo titta, so ad hver fiøl meige føst verda vid adra: so skulu allar fialer vera gerdar til tialldbúdarennar.

18. Tuttugu skulu standa fyrer sunnanframm,

19. Og skulu hafa fiørutíu silfurfætur under ser, og tvær fætur under hverre fiøl, hiá hennar tveimur tittum.

20. So skulu og tuttugu fialer standa fyrer nordanframm, á þeirre annare sídu.

21. Og fiorutíu silfur fætur, og tveir fætur under hverre fiøl.

22. Sídan skalltu og gera sex fialer á bak vid tialldbúdena, til vesturs.

23. So skalltu og gera tvær fialer þar til baka, á þeim tveimur hornum tialldbúdarennar,

24. Ad hverar med sínum hornfiølum seu saman festar nedan, og ofantil, líka so festar til samans med einum sinkle.

25. Og þær fialer skulu vera átta, med þeirra silfurfótum, sem eru sextan, tveir fætur under hverre fiøl.

26. Þú skallt og gera stingur af triám Setim, til fialanna, fimm vid þá eina sídu á tialldbúdenne,

27. Og fimm til fialanna vid þá ødra sídu á tialldbúdinne, og fimm til þeirra fiala á bak vid tialldbúdena, í vestur.

28. Og þú skallt stínga staungunum midt í fialernar, og koma þeim øllum til samans frá þvi eina horne og til þess annars,

29. Og þú skallt búa fialernar med gulle, og gera þeirra hringa af gulle, ad stínga staungunum í þá. Þú skallt og búa steingurnar med gulli.

30. So skalltu uppreisa tialldbúdena, epter þeirre mind sem þú sást á fiallenu.

31. Þú skallt og gera eitt fortialld af gulu silke, skarlate, og purpura, og hvítu tvinnudu silke; þar uppá skalltu med hagleik gera Cherubim.

32. Og heingia þad á fiora stolpa af triám Setim, sem eru búner med gulli, hafande gullknappa, og fiorar fætur af silfre.

33. Og þú skallt festa fortialldsed til samans med krókum, og setia vitnisburdar ørkena fyrer innan fortialldsed, so þad se ydur einn adskilnadur, á millum þess heilaga og þess allra-heilagasta.

34. Og þú skallt setia nádarstólenn uppa ørk vitnisburdarins inn í þad allraheilagasta.

35. Enn bordsed skalltu setia fyrer framann fortialldsed, og kertastikuna, þvert yfer frá bordenu, á þá sydre sídu í tialldbúdenne, enn bordsed stande fyrer nordan framm.

36. Þú skallt og gera einn dúk fyrer dyrnar á tialldbúdenne, vofenn med gulu silke, purpura, skarlate og hvítu tvinnudu silke,

37. Og ger fimm gullega stolpa til sama dúks, af triam Setim gullbununm, med gullknøppum, og þú skallt steypa til þeirra fimm koparfætur.

## 27. Capitule.

1. Þú skallt gera eitt alltare af triam Setim, fimm alna langt og breidt, jafnt á fiora vegu, og þriggia alna hátt.

2. Þú skallt og gera horn uppá þeim øllum hyrningum alltaresins, og slá hornenn med kopar utann.

3. Ger og katla ad láta í øskuna, skeifar, munnlaugar, matkroka, elldpønnur, øll þesse verkfære skallt þú gera af kopar.

4. Þú skallt og gera kopargrind þar fyrer, so sem eitt net, og ger fiora koparhringa í þau fiøgur horn þar á.

5. Og þú skallt gera hana nedan umkring alltared, ad grindurnar take midt upp í alltared.

6. Og þú skallt gera steingur til alltaresins, af triam Setim, og slá þær utanum med messing.

7. Og þú skallt stínga staungunum í hringana, so ad steingurnar meige vera á bádar sídur vid alltarid, ad bera þad med.

8. Þú skallt og gera þad af fiølum, so þad se holt innann, so sem þer var sagt á fiallenu.

9. Þú skallt og gera einn gard um tialldbúdena, þad skulu vera langtiølld, af hvítu tvinnudu silke, hundrad alna langann ødrumeigenn á þá sydre sídu,

10. Og tuttugu stolpa skalltu gera á tuttugu koparfótum, og þeirra knappa med laufverki, af silfre.

11. Þar skal og vera eitt langtialld á nyrdre sídu, hundrad alna langt, tuttugu stólpar á tuttugu kopar fotum, og þeirra knappar med sínu laufverke af silfre.

12. Enn á þeirre vestre sídu skal gardsins breidd hafa eitt tialld, fimmtíu alna, med tíu stolpum á tíu fótum.

13 Enn á þá austri sídu skal gardsurenn vera fimtíu alna breidur,

14. So ad langtiølldenn hafe fimmtan alner á þá eina sídu, þar til þriá stolpa á þremur fótum,

15. Og líka fimmtan alna á þá adra sídu, þar til þriá stolpa á þremur fótum.

16. Í inngaungu tialdbúdargardsins, skal vera einn dúkur tuttugu alna breidur, saumadur med gulu silke, skarlate og purpura, og hvítu tvinnudu silke, og þar til fiorer stolpar á sínum fiórum fótum.

17. Aller stolstarner í kringum tialldbúdargardenn skulu hafa silfurhánka, og silfurknappa, og kopar fætur.

18. Og tialldbúdargardurinn skal vera hundrad alna langur, og fimtíu alna breidur, og fimm alna hár, af hvíttvinnudu silke. Og fæturnar skulu vera af kopar.

19. Øll tialldbúdarennar verkfære, til allsháttadrar þionustugerdar, og aller hennar naglar, og aller tialldbúdargardsins hælar skulu vera af kopar.

20. Biod Israels børnum, ad þeir bere þer þad allra skæraſta og kláraſta vidsmiør, sem þeir fá af vidsmiørsvidartriám, vel ſteked, til ad lysa, so þad se alltíd láted í lampana,

21. J vitnisburdarbúdenne, fyrer framann tiallded, þad sem hanger fyrer vitnesburdenum. Og Aaron og hans syner skulu tilreida þá fyrer Drottne, bæde morgna og kvølld, og þad skal vera ein eylíf ſkickan hiá ydur. og ydrum epterkomendum, medal Israels barna.

## 28. Capitule.

1. Og þú skallt taka þinn broder Aaron, og hans sonu til þín, af Israels børnum, ad hann se minn kennemadur, sem er Aaron og hans syner, Nadab, Abihu, Eleasar og Ithamar.

2. Og þú skallt gera Aaron þinum brodur helgann klædnad, sem vera skal vegsamlegur og prydelegur.

3. Og tala þú vid alla þá sem hafa eitt vísdoms hiarta, hvera eg hefe uppfyllt med vísdoms anda, ad þeir gere Aarone til sinnar vígslu, ad hann se minn kennemadur.

4. Þesse eru þau klæde, sem þeir skulu gera: brioſt-ſkiølld, líſkyrtil, silkemøttul, þraungann kyrtil, høfudklæde, og bellte. Þennann helgann klædnad skulu þeir gera Aarone þinum brodur, og hans sonum, so ad þeir seu míner kennemenn.

5 Og þar til skulu þeir taka gull, gult silke, skarlat, purpura, hvítt silke.

6. Þeir skulu gera líſkyrtelinn af gulle, gulu silke, skarlate, purpura, og hvítu tvinnudu silke, fagurlega,

7. So hann se teingdur til samans á bádum ørlum, og so bindeſt til samans, á sídunum.

8. Og bellte þar utan yfer skal vera gert med þeim sama hagleik og smíde, af gulle, gulu silke, skarlate, purpura, og hvítu tvinnudu silke.

9. Þú skallt og taka tvo Onyxſteina, og grafa nøfn Israelis barna á þeim.

10. Sex nøfn á hverum, epter þeirra alldre.

11. Og láta ſteinſnídara, þá sem innsigle grafa, gera þad, og greypa þá í gulli allt úmkring.

12. Og þú skallt feſta þá uppa axlernar á líſkyrtlenum, ad þeir ſteinar seu til einnar minningar fyrer Israels børnum. Aaron bere þeirra nøfn uppá bádum sínum ørlum, fyrer Drottni til minningar.

13 Þú skallt og gera gullſpeingur,

14. Og tvær kediur af kláru gulle, so ad hver hringur hange í ødrum, og þær skalltu feſta í ſpangernar.

15. Þú skallt og gera embættesins brióſtſkiølldenn koſtulega, so sem líſkyrtelinn, af gulli, gulu silke, skarlate, purpura, og tvinnudu hvítu silke.

16. Hann skal vera ferſkeittur og tvøfalldur, einnrar ſpannar á leingd, og so líka einnrar á breidd.

17. Hann skalltu setia allann samann med fiorum raudum ſteinum. Og í fyrſtu rødenne skal vera sardus, topaser, og smaragdus.

18. J annare rødenne, rubin, saphirus, demant.

19. J þeirre þridiu, lyncurer, achat, og amethiſtus.

20. Ï þeirre fiordu, einn turckis, onyx, jasspis. Þeir skulu vera greypter í gulli í øllum rødunum,

21. Og þeir skulu standa epter tolf Israels barna nøfnum, útgrafner af steinsnídaranum, hver epter sínu nafne, epter þeim tolf kinkvíslum.

22. Þú skallt og gera hleckiafeste til briostskiølldsins, med tveimur endum, og lykia hvern í annann, af kláru gulle.

23. Og tvo gullhringa á briostskiølldenn, so ad þú fester þá samann, tvo hringa til þeirra tveggia horna á briostskyldenum.

24. Og set þar tvær gullkediur í þá somu tvo hringa til þeirra tveggia horna á briostskylldenum.

25. Enn þá hina tvo enda af þeim tveimur kedium skalltu setia í þær tvær speingur, og festa þær í axlernar á lífkyrtlenum, hvern yfer frá ødrum.

26 Og þú skallt gera tvo adra gullhringa, og festa þá í þau ønnur tvø horn, á briostskylldenum, hvern í sínum stad, innaun til mots vid líffyrtelinn.

27. So skalltu gera tvo gullhringa og festa þá á bæde hornenn nedann til líffyrtilsins, hvern mót ødrum, þar sem líffyrtillenn kemur til samans, ofan á líffyrtilenn, med meistara-hagleik,

28. So skalltu knyta briostskiølldenn med sínum hringum, í hringana á líffyrtlenum, med einne gulre snúru, so þad se fest vid líffyrtelenn, sem er kostulega gerdur, so ad briostskiølldurenn se eigi laus vid líffyrtelenn.

29. So skal Aaron bera Israels barna nøfn í embættesins briostskylldenum, á sínu brioste þegar hann gengur í helgedómenn, alltiid til einnrar minningar fyrer Drottni.

30. Þú skallt og setia í embættis briostskiølldenn, liósed og rettenn, so þad se á Arons brioste, þegar hann kemur inn fyrer Drottinn, ad hann æ og alltíd bere Israels barna embætte á sínu brioste fyrer Drottne.

31. Þú skallt gera einn silkekyrtil, under líffyrtlenum, allannsamaun af gulu silke.

32. Og skal vera eitt hálsmál á hønum midium, og falldad med einum borda, so þad rifne eigi.

33. Og nedanverdt á falldenum skalltu gera so sem granata-eple allt umkring, af gulu silke, skarlate, purpura, og gullbiøllur millum þeirra, so rett umkring,

34. So ad þar se ein gullbialla, og eitt granata-eple, og aptur ein gullbialla og granata-eple, allt í kring um falldenn á þeim sama silkekyrtle.

35. Þessum kyrtle skal Aaron skrydast, þá hann embættar, so ad menn meige heyra hlioménn þar af, þegar hann gengur út og inn í helgedomenn fyrer Drottinn, ad hann skule eigi deya.

36. Þú skallt og gera eina ennisspaung af kláru gulle, og útgrafa Drottinns helgedom þar á, sem menn útgrafa insígle.

37. Þad skalltu festa framann á hatteun, med einum gulum silke dreigle, yfer Arons enne,

38. So skal Aaron bera misgerder þess helgada, sem Israels børn heilagt gera med øllum þeirra gáfum, og þad skal altíd vera yfer hans enne, til ad forlíka þá fyrer Drottni.

39. Þú skallt og gera einn mioann kyrtel af hvítu silke, og einn hatt af hvítu silke, og stángad bellte.

40. Þú skallt og gera Arons sonum kyrtla, og bellte, og mítur, vegsamleg og føgur.

41. Og færa Aron þinn brodur og hans syne þar í, og smyria þá, og fylla þeirra hendur, og vígia þá til ad vera míner kennemenn.

42. Þú skallt og gera þeim línbrækur af líne, fra lendunum og til knesbótar, ad hylja þeirra blygdanar holld med.

43. Þær skal Aron og hans syner hafa, þá þeir ganga inn í tialldbúd vitnisburdarins, edur til alltarisins, ad þiona í helgedomenum, so ad þeir bere eige sína misgerninga, og deye. Þetta skal vera hønum og hans sæde epter hann ein eylíf skickan.

## 29. Capitule.

1. Þetta er þad sem þú skallt gera þeim, so þeir seu vígder mer til kennemanna: tak einn ungann uxa, og tvo hrúta, sem ad eru vammalauser,

2. Og ósyrt braud, og ósyrdar køkur blandadar med vidsmiøri, og ósyrda leifa, smurda med vidsmiøre, þetta alltsamann skalltu gera af hveitemiøle,

3. Og leggia þad í eina kørf, og bera þad framm í kørfenne, og uxann, og þá tvo hrútana.

4. So skalltu leida Aron, og hans syne, fyrer dyrnar samkunduтialldbúdarennar, og þvo þeim í vatne.

5. Og taka klædinn, og færa Aron í þann mióa kyrtil, og í þann silke kyrtel, og í líffyrtelenn, med briostskyllденum til líffyrtelsins. Og þú skallt gyrda hann utann á líffyrtelinn.

6. Og setia hattinn á hans høfud, og setia þá heiløgu koronu upp á hattinn.

7. Sídann skalltu taka þad smurningar oleum, og hella því á hans høfud, og smyria hann.

8. So skalltu og leida hans sonu her til, og færa þá í þá mión kyrtla,

9. Og gyrda þá og Aron med lindum, og setia húfur uppa þá, so þeir skulu hafa prestdæmid, til eylífrar skickunar. Þú skallt og fylla Arons hendur og hans sona,

10. Og leida þann unga uxann fyrer samkundu-tialldbúdena. Og Aron og hans syner skulu leggia sínar hendur yfer høfud uxans,

11. Og slátra uxanum fyrer Drottni, fyrer dyrum samkundutialldbúdarennar.

12. So skalltu taka af hans blóde, og smyria á hornenn alltaresins med þínum fingre; enn allt annad blód skalltu nidur hella fyrer alltaresins fóti.

13. Og þú skallt taka alla þá feite, sem utann um innislenn er, og lifrar netiuna, og bæde nyrunn og nyrna mørinn, og þú skallt uppkendra þad á alltarenu.

14. Enn ketid, húdena, og ohreinendenn uxans skallt þú uppbrenna med ellde, fyrer utann herbúdernar, því þad er eitt synda offur.

15. Enn þann annann hrútenn skalltu taka, og Aron og hans syner skulu leggia sínar hendur yfer hans høfud.

16. Sídann skalltu slátra hønum, og taka hans blod, og støckva því allt í kring á alltarid.

17. Enn hrútenn skalltu høggva í stycke, so skalltu þvo hans innisle og hans fætur, og leggia þau á styckinn, og á hans høfud,

18. Og brenna so hrútenn allann samann á alltarenu, því þad er ein brenneforn fyrer Drottne, einn sætleiks ilmur, og Drottins elldur.

19. Enn þann annann hrút skalltu taka, og Aaron og hans syner skulu leggia sínar hendur yfer hans høfud,

20. Og þú skallt slátra hønum, og taka hans blód, og rióda því á hægra eyrnasnepel Aarons, og hans sona, og á þeirra hægra þúmalfingur, og á þeirra hægre þumaltá. Og þú skallt støckva blódenu rett umkring á alltarenu.

21. Og þú skallt taka það blóded á alltarenu, og það smurningar oleum, og støckva því yfer Aaron og hans klæde, hans syner og þeirra klæde, so verdur hann og hans klæde, hans syner og þeirra klæde vígd.

22. Sídann skalltu taka feited af hrútnum, og róuna, það feita um inniflenn, lifrarnetiuna, og bæde nyrunn med nyrna mørnum þar umkring, og hægra bogenn (því það er fyllingar hrútur).

23. Og eitt braud, og eina oleu køku, og einn leif, úr þeirre kørf sem stendur fyrer Drottne, med ósyrdu braude.

24. Og legg það allt á Aarons og hans sona hendur, og veyfa því fyrer Drottne.

25. Og tak það sídann af þeirra høndum, og upptendra það á alltarenu, til eins brenne-offurs, til eins sæts ilms fyrer Drottni, því það er elldur Drottins.

26. Og þú skallt taka bringuna af Aarons uppfyllingar hrut, og þú skallt veyfa því fyrer Drottni. Það skal vera þinn partur.

27. Þú skallt og so helga veyfunarbriosted og upplyptingarbógenn,

28. Sem er veyfud og upplypt af Aarons og hans sona fyllingshrút, og það skal Aaron eignast og hans syner, fyrer eina eylífa skickan, af Israels børnum, því það er eitt upplyptingar offur. Enn upplyptingar offred skal heyra Drottne til, af Israels børnum, í þeirra þacklætis offre, og upplyptingar offre.

29. Enn þau helgu klæde sem Aaron hefir, þau skulu hans syner hafa epter hann, ad þeir seu smurder í þeim, og þeirra hendur uppfylltar. Hver af hans sonum, sem verdur prestur í hans stad,

30. Hann skal íklædast þeim í siø daga, ad hann gange inn í samkundutiallbúdena, til ad þiona í helgedomenum.

31. Þú skallt og taka fyllingar hrútenn, og matgera hans ket á einum heiløgum stad.

32. Og Aaron og hans syner skulu eta það sama hrúts ket, med því braude sem er í kørfenne, fyrer samkundutialldbúdar dyrum,

33. Því þar med er forlíkunenn ordenn, ad sylla þeirra hendur, so þeir seu vígder. Engenn annarlegur skal eta það, því það er heilagt.

34. Enn ef nockud leifest af sama uppfyllingar kete, og af braudenu, inn til morguns, þá skalltu það brenna med ellde, og eigi láta það etast, því það er heilagt.

35. Og þú skallt so gera vid Aaron og hans sonu, í allann máta, líka sem eg hefe bífalad þer. Þú skallt fylla þeirra hendur í siø daga.

36. Og slátra hvern dag einum uxa til syndaoffurs, til forlíkunar. Þú skallt hreinsa alltared, þá þú gerer soddana forlíkan þar yfer, og smyria það, ad það verde vígt.

37. Siø daga skalltu gera þessa forlíkan yfer alltared, og vígia það, ad það se eitt alltare þess allra heilagasta, og hver sem snerter alltared, hann skal verda helgadur.

38. Og þetta skalltu gera vid alltarid, þú skallt ætíd hvern dag fornfæra þar á tvø lømb veturgømul,

39. Eitt lamb ad morgne, og þad annad ad kvøllde.

40. Og til eins lambs legg þú tíunda part hveitis salla blandad vid skeked oleum, fiorda part af Hin, og einn fiorda part Hin víns, til dryckiaroffurs.

41. Þú skallt gera líka so med þad annad lambed ad kvølldе, so sem vid matoffur og dryckiaroffur um morgunenn, til eins sætleiks ilms, einn elld fyrer Drottne.

42. Þetta er þad daglega brenneoffur hiá ydar epterkomendum, fyrer samkundunnar tialldbúdardyrum, fyrer Drottne, þar sem eg vil vitna fyrer ydur, og tala vid þig.

43. Þar vil eg þeckiast af Israels børnum, og helgast í minne dyrd.

44. Og eg vil helga gera samkundutialldbúdena, og alltared, og eg vil vígia Aaron og hans sonu mer til kennemanna,

45. Og eg vil búa á medal Israels barna, og vera þeirra Gud,

46. So þeir vite, ad eg em Drottinn þeirra Gud, sem leidde þá af Egyptalande, ad eg byi á medal þeirra, eg Drottinn þeirra Gud.

## 30. Capitule.

1. Þú skallt gera eitt reyk-alltari, til ad brenna reykelse uppá, af triám Setim,

2. Einnrar alnar langt og breidt, rett ferskeytt, og tveggia alna hátt med sínum hornum.

3. Og þad skalltu búa utann med kláru gulli ofann til, og á sídunum allt umkríng, og hornenn med. Þú skallt og gera eina koronu af gulle í kringum þad,

4. Og tvo gullhringa á bádar sídur, under korønunne, so menn meige setia steingurnar þar í, ad bera þad med.

5. Þú skallt og gera steingurnar af triám Setim, og búa þær med gulli.

6. Þad skalltu setia fyrer framann fortialldet, sem henger fyrer vitnisburdar ørkenne, og fyrer þeim nádarstol, sem er á vitnisburdenum, hvadann eg vil vitna fyrer þer.

7. Og á þessu alltare skal Aaron hvern morgun tendra ilmande reykelse, þá hann tilreider lampana.

8. Sømuleidis á kvølldenn, þá hann tendrar lampana, skal hann og reykia slíku reykelse. Þetta skal vera daglegt reykelse fyrer Drottni, hiá ydrum epterkomendum.

9. Þer skulud eigi annarlegt reykelse gera þar uppá, og ei helldur offra þar uppá brenneoffre, matoffre, eda dryckiaroffre.

10. Og Aaron skal eitt sinn um áred giøra eina forlíkun á hornum alltaresins med synda offurs blóde, til forlíkunar. Þesse forlíkun skal ske eitt sinn hvert ár hiá ydur epterkomendum, þvi þad er Drottni þad allrahelgasta.

11. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

12. Þá þú telur Israels barna høfud, þá skal hver gefa Drottne sinnar sálar forlíkun, so ad þar skule engenn plága koma á þá, þegar þeir eru talder.

13. Og hver sem í tølunne er, hann skal gefa einn halfann sikel, epter helgedomsins sikle. Enn sikell gillder tuttugu Gera; soddan halfur sikell skal vera Herrans upplyptingar offur.

14. Enn hver sem er í tølunne tvitugur og þadan af elldre, hann skal gefa Drottne soddan upplyptingar offur.

15. Sa hinn ríke skal eigi gefa meira, og sá fátæke eigi minna enn halfann sikel, sem hann gefur Drottne til upplyptingar, fyrer þeirra sálna forlíkan.

16. Og þú skallt taka soddann forlíkunar peninga af Israels børnum, og leggia til Guds þionustu í samkundu búdena, ad það se Israels børnum ein minning fyrer Drottne, ad hann láte sig forlíka yfer þeirra sálum.

17. Og Drottenn talade vid Mosen, og sagde,

18. Þú skallt og gera eitt vatnsker af kopar, med einum koparfæte, til ad þvo sig úr. Og það skalltu setia millum samkundu-búdarennar og alltaresins, og láta vatn þar úti,

19. So ad Aaron og hans syner meige þvo sínar hendur og fætur þar af,

20. Þá þeir ganga inn í samkundubúdena, eda til alltaris, ad þiona med reykelse, sem er elldur fyrer Drottne, so ad þeir deye eigi.

21. Það skal vera ein eylíf skickan, hønum og hans sæde, hiá þeirra epterkomendum.

22. Og Drottinn talade vid Mosen og sagde,

23. Tak til þín þær bestu jurter, þá skærustu myrrhu, fimmhundrud siclos (ad vikt) og hálfpart so miked af cinnamomum, tvø hundrud og fimmtíu (siclos) og Calmus tvø hundrud og fimmtíu,

24. Og fimmhundrud Casien, epter vigt helgedomsins sikels, og eitt Hin vidsmiørs, af vidsmiørs tre,

25. Og ger eitt heilagt smurningar oleum, epter smyrslamakarans kunnáttu.

26. Þar med skalltu smyria samkundutialldbúdena, og vitnisburdar ørkena,

27. Borded og øll þess ker, kertastikuna med því sem henne tilheyrer, reykelses alltared,

28. Brenneoffurs alltared med øllum sínum umbúnade, og vatnskered med sínum fæte.

29. Og þú skallt vígia það so, ad það se það allrahelgasta; því sá sem vill snerta þetta, hann skal verda vígdur.

30. Þú skallt og smyria Aaron og hans sonu, og vígia mer þá til kennemanna.

31. Og þú skallt tala vid Israels børn, og seigia: þetta oleum skal mer vera eitt heilagt smyrsl, hiá ydrum epterkomendum.

32. Því skal eigi vera úthellt á mannsins líkama. Eige skulud þer helldur gera soddann, því það er heilagt; þar fyrer skal það og vera ydur heilagt.

33. Hver hellst sem gerir soddann, edur gefur ødrum nockud þar af, hann skal verda afmádur frá sínu folke.

34. Og Drottinn sagde til Mosen: tak til þín jurter, balsamum, Stacten, Galben, og klára myrrhu jafnmiked af hveru,

35. Og ger reykelse þaraf, epter smyrslamakarans kunnáttu blandad, ad það blífe hreint og heilagt.

36. Og þú skallt melia það í smátt, og leggia það fyrer vitnisburdenn, í samkundu tialldbúdenne, hvadann eg mune vitna fyrer þer, það skal vera ydur það allrahelgasta.

37. Þer skulud eigi gera ydur siálfum soddann reykelse, helldur skal þetta vera þer heilagt fyrer Drottni

38. Hver sem gerer þetta, til ad hafa hiá ser siálfum slíkann ilm, hann skal afmást frá sínu folke.

## 31. Capitule.

1. Drottinn mællte vid Mosen og sagde: siá!

2. Eg hefe kallad Bezaleel, son Uri, sonar Hur, af ætt Juda, med nafne,

3. Og eg hefi uppfyllt hann med Guds anda, med vísdome og skilninge, og hagleik í allrahanda smíde,

4. Meistaralega ad erfida í gulle, silfre, kopar,

5. Kostulega ad útgrafa, og innsetia steina, og kostulega ad smída úr tre, og ad smída allrahanda smíde,

6. Og siá! eg hefe fenged hønum felaga Ahaliab, son Ahisamach af ætt Dan, og eg hefe gefed þeim allshåttadann vísdom í þeirra hiörtu, ad þeir skulu smída allt þad, sem eg hefe boded þer,

7. Samkundu tialldbúdena, vitnisburdar ørkena, nádarstolenn þar uppá, og allann umbúnad tialldbúdarennar,

8. Borded med þeim búnade, sem þar tilheyrer, þá føgru kertastiku med sínum øllum verkfærum, reykalltared,

9. Brennefornar alltarid med øllum sínum búnade, vatnkered og þess fót,

10. Embættis klæddinn, og Aarons kennemanns helgu klæde, og hans sona klæde til prestembættesins.

11. Smurningaroleum, og reykelse af jurtunum til helgedomsins. Allt þad sem eg hefe bifalad þer, þad skulu þeir gera.

12. Og Drottinn talade vid Mosen og sagde.

13. Tala til Israels barna, og seigdu til þeirra, halldeð minn þvottdag, þviad þad sama er eitt teikn, millum mín og ydar, og ydra epterkomenda, so þer skulud vita, ad eg em Drottinn sem ydur gerer heilaga.

14. Þar fyrer halldeð minn sabbathsdag, þvi hann skal vera ydur helgur. Hver sem vanhelgar hann, sá skal vissulega deya. Þvi hver sem gerer nockud erfide á hønum, hans sál skal afmást frá sínu folke.

15. Sex daga skulu Menn erfida, enn siøunde dagur er sabbathsdagur, Drottins heiløg hvíld. Hver sem gerer nockud erfide á sabbathsdege, hann skal vissulega deya.

16. Þarfyrer skulu Israels børn halda sabbathsdagenn, ad þau, og hiá þeirra epterkomendum hallde hann til eins eylífs sáttmála.

17. Hann er eitt eylíft teikn millum mín og Israels barna, þvi Drottinn skapade himen og jørd á sex døgum, enn á þeim siøunda dege hvíldest hann, og endurnærde sig.

18. Og sem Drottinn hafde endad þessar rædur vid Mosen, á Sinai fialle, gaf hann hønum tvær vitnisburdar tøblur, þær voru af steine, og skrifadar med Guds fingre.

## 32. Capitule.

1. Enn þegar folked sá, ad Moses dvalde ad koma af fiallenu, søfnudust þeir samann mót Aaron, og søgdu til hans: statt upp, og ger oss Gude, sem gange fyrer oss, þvi ver vitum eigi, hvad af þeim manne Mose er orded, sem leidde oss af Egyptalande.

2. Aaron sagde til þeirra, taked eyrnagulled ydvara kvenna, sona og dætra, og bered þad hingad til mín.

3. So reif allt folked eyrnagulled ur þeirra eyrum, og báru þad til Aarons.

4. Og hann medtók þad af þeirra høndum, og uppkastade med einum stíl, og gerde einn steypptann kálf. Og þeir søgdu: Israel! þesser eru þíner Guder, sem færdu þig af Egyptalande.

5. Þá Aaron sá þad, byggde hann eitt alltare fyrer hønûm, og let úthrópa og seigia, á morgun er Drottins hátíd.

6. Og þeir stodu snemma upp um morgunenn, og offrudu brenneförner, og løgdu til þacklætisförner. Epter þad sette folked sig nidur ad eta og drecka, og stód so upp ad dansa.

7. Þá sagde Drottinn til Mosen: gack, og far ofann, þvi þitt folk, þad þú leiddер af Egyptalande hefir fordiarfad (sinn veg.)

8. Þeir eru snart vikner af þeim vege sem eg baud þeim; þeir hafa gert ser einn steypptann kálf, og hafa tilbeded hann og offrad hønum, og sagt: Israel! þesser eru þíner Guder, sem leiddu þig af Egyptalande.

9. Og Drottinn sagde til Mosen: eg se, ad þetta folk er hardsvírad folk,

10. Lát mig nú ráda, so mín reide meige gremiast þeim, og svelgia þá, so vil eg gera þig til eins mikels folks.

11. So bad Moses fyrer Drottni sínum Gude, og sagde: Drottinn! þvi vill þín grimmd reidast þínu folke, sem þú útleiddеr af Egyptalande, med miklum krapte og stirkre hende?

12. Hvar fyrer skulû Egyptarner tala og seigia? hann hefir útleidt þá, þeim til ólucku, so ad hann dræpe þá á fiøllum uppe, og afmáde þá af jørdunne. Snú þer frá þinne grimmre reide, og vert nádugur yfer vondskap þíns folks.

13. Lát þer í hug koma þína þenara, Abraham, Isaac og Israel, hverum þú hefir svared vid þig sialfann, og fyrerheited þeim: eg vil so margfallda ydart sæde sem stiørnur á himnenum, og allt þetta land sem eg hefe lofad, vil eg gefa, ydru sæde, og þeir skulu þad eignast æfennlega.

14. So idradest þá Drottinn þess hins vonda, sem hann hafde hótad ad gera sínu fólke.

15. Moses snere ser, og geck ofann af fiallenu, og hafde tvær vitnisburdar tøblur í sinne hende, þær voru skrifadar á bádar síour.

16. Og Gud sialfur hafde gert þær, og sialfur grafed skriftena á þeim,

17. Sem nú ad Josua heyrde folksins hróp og þys, þá sagde hann til Mose: þar er eitt hróp í herbûdunum, líka sem í bardaga.

18. Hann svarade: þar er eigi óp so sem þeirra ed falla, edur fá sigur, helldur heyre eg rødd kvedanda dans.

19. Og er Moses nálgadest til herbûdanna, og sá kálfenn og dansenn, þá reiddest hann ákaflega, og kastade tøblunum af hende, og braut þær í sundur, under fiallenu.

20. Sídann tók hann kálfenn, sem þeir høfdu gert, og brennde hann í ellde, gerde hann ad øsku, og kastade henne í vatn, og gaf Israels børnum þad ad drecka.

21. Og hann sagde til Aarons, hvad hefir þetta folk gert þer, ad þú leiddеr so stora synd yfer þad?

22. Aaron svarade: minn Herra! reidst eigi; þú veitst, ad þetta folk er illt.

23. Þeir søgdu til mín: gér oss Gude, sem gange fyrer oss, þvi ver vitum eigi, hvad orded er af þessum

manne Mose, sem oss útleidde af Egyptalande.

24. Þá sagde eg til þeirra: hver sem hefir gull, hann ríse þad af, og sáe mer þad. Og eg kastade því í elldenn, so vard þesse kálfur þar af.

25. Sem Moses nú sá, ad folked vard orded laust (því ad Aaron hafde gert þad laust, til hneikingar á medal óvinanna.)

26. Þá geck hann framm í herbúda hlidid, og sagde, ef nockur er Guds, hann kome hingad til mín. Þá søfnudust øll Levi børn til hans.

27. Og hann sagde til þeirra, so seiger Drottinn Israels Gud, hver einn binde sitt sverd vid sína sídu, og gange ígegnum herbúdernar, framm og aptur, frá einu hlide til annnars, og hver sláe sinn broder, vin og náunga íhel.

28. Levi børn gerdu sem Moses hafde sagt þeim. Og þar fell á þeim deige, þriár þusunder manns af folkenu.

29. Þá sagde Moses: fylled ydar hendur í dag fyrer Drottne, hver einn á sínum syne, og brodur, so þar gefest blessan yfer ydur í dag.

30. Annars dags þar epter sagde Moses til folksins: þer hafed gert eina stóra synd, eg vil nú uppfara til Drottins, ef ske mætte, eg gæte forlíkt ydar synd.

31. Og sem Moses kom aptur til Drottins, sagde hann: þetta folk hefir framed eina stóra synd, og gert ser Gude af gulle,

32. Fyrergef þeim nú þeirra synd; enn viler þú þad eigi, þá afmá þú mig og af þinne bok, sem þú hefir skrifad.

33. Drottinn sagde til Mosen: hvad? eg vil afmá þann af minne bok, sem syndgast á móte mer.

34. Far þú nú, og leid folked þangad, sem eg sagde þer: siá! minn engell skal fara fyrer þer. Eg vil vitia þeirra synda, þá minn vitiunar-tíme kemur.

35. So straffade Drottinn folked, vegna kálfsins, hvern Aaron hafde gert.

## 33. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Mosen, far og ferdast hedann, þú og folked, þad þú leidder af Egyptalande, til þess lands sem eg sór Abraham, Isaac og Jacob, seigiande: eg vil gefa þínu sæde þad.

2. Eg vil senda einn engel fyrer þer, og utryma þá Cananeos, Amoreos, Hetheos, Phereseos, Heveos, og Jebuseos,

3. J þad land sem miolk og hunáng flytur í. Eg vil eigi fara upp þangad med þer, því þú ert hardsvíradur lydur, so eg mætte fortæra þer á vegenum.

4. Þá folked heyrde þesse vondo ord, gret þad, og engenn bar sína pryde á ser.

5. Og Drottinn sagde til Mosen, seigdu Israels børnum, þer erud eitt hardhnackad folk, eg kem einusinne brádlega yfer þig, og eydelegg þig, legg nú þitt skart af þer, so eg meige vita, hvad eg skal gera þer.

6. So løgdu Israels børn þeirra skart af ser, hiá því fiallenu Horeb.

7. Enn Moses tók tialldbúdena, og reiste hana upp, langt út frá herbúdunum, og kallade hana samkundutialldbúd. Og hver sa madur, sem villde adspyria Drottinn, hann hlaut ad fara ut til samkundubúdarennar, út fyrer herbúdernar.

8. Og þá Moses geck út til búdarennar, þá stód allt folked upp,

og hver geck út í sínar tialldbyr, og
þeir litu á bak honum, þar til hann
kom inn í tialldbúdena.
9. Og þá Moses kom í tialld-
búdena, þá kom skyſtolpenn nidur,
og stód í tialldbúdardyrunum, og
talade vid Mosen.
10. Og allt folked sá ad skyſtolp-
enn stód í tialldbúdarennar dyr-
um, og hver í sínum tialldbyrum
stód upp og hneigde sig.
11. Enn Drottinn talade vid
Mosen, andlite til andlitis, líka
sem einn madur talar vid sinn vin.
Og þá hann geck aptur til herbúd-
anna, þá veik hans unge þenare
Josúa sonur Nún hverge af tialld-
búdenne.
12. Og Moses sagde til Drott-
ins: siá! þú seiger til mín, leid þú
folked upp þangad, og þú lætur
mig eigi vita, hvern þu villt senda
med mer. Þar þú hefir þo sagt
til mín: eg þecke þig med nafne,
og þú hefir funded nád fyrer mín-
um augum.
13. Hafe eg nú funded nád fyrer
þínum augum, þá vísa mer þinn
veg, hvar med eg kann ad þeckia
þig, og finna nád fyrer þínum aug-
um, og siá þú, ad þetta folk er þinn
lydur.
14. Hann sagde, mitt andlit
skal fara, þar med vil eg vísa
þer veg.
15. Enn hann sagde til hans,
ef þitt andlit fer ei, þá leid oss ei
ur þessum stad upp þangad.
16. Þvi hvernenn eigum ver
ella vita, ad eg og þitt folk hafe
funded nád fyrer þínum augum,
utan þad þú farer med oss? so ad
eg og þitt folk meigum prísast, fyr-
er ollu folke á jordunne.
17. Þá sagde Drottinn til Mo-
sen: eg vil gera þad, sem þú nú
mællter, þvi þú hefir funded nád
fyrer mínum augum, og eg þecke
þig med nafne
18. Enn hann sagde, þá lát mig
siá þína dyrd.
19. Og hann sagde, eg vil láta
allann minn góda framm fara fyr-
er þínu andlite, og eg vil láta pre-
dika Drottins nafn fyrer þer. Enn
hverum sem eg em nádugur, þeim
em eg nádugur, og hverum eg em
miskunsamur, þeim em eg miskun-
samur.
20. Og hann sagde framarmeir:
eigi máttu siá mitt andlit, þviad
engenn manneskia mun lifa, sem
mig ser.
21. Og Drottinn sagde enn fram-
ar: siá! her er eitt rúm hiá mer, þar
skalltu standa uppá steinenum,
22. Þá mín dyrd gengur nú
framm hiá, þá vil eg láta þig stan-
da í biargskorunne, og mín hond
skal hlífa þer, á medan eg geing
framm hiá.
23. Og þá eg tek mína hond frá
þer, þá skalltu siá á bak epter mer,
enn mitt andlit sær engenn mad-
ur sed.

## 34. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Mosen,
høgg þer tvær steintøblur, sem þær
enu fyrre voru, so ad eg skrife þau
ord, sem voru á þeim fyrre tøblun-
um, hverar þú braust í sundur,
2. Og vert búenn á morgun, so
þú stíger árla uppá Sinai fiall, og
gack þar til mín efst uppá fialled,
3. Og lát eingann fara upp med
þer, og ad eingenn verde sen her í
nánd fiallenu, og ad hverke naut
ne sauder fædest gegnt þessu fialle.
4. Og Moses hió tvær steintøbl-
ur so sem hinar fyrre voru, og stod
snemma upp um morgunenn, og
geck uppá Sinai fiall, sem Drottinn
hafde boded honum, og tók þær
tvær steintøblur í sína hond.

5. Þá kom Drottinn nidur í einu skye, og stód hiá hønum, og predikade út af Drottins nafne.

6. Og þá Drottinn geck framm fyrer hans andlit, kallade hann: Drottinn! Drottinn! miskunsamur Gud og nádugur, og þolinnmodur, og miøg líknsamur og trúr,

7. Þú sem audsyner miskun í þusund lidu, og fyrergefur misgerdernar, ránglætid og syndernar, og fyrer hverum eingenn er saklaus, þú sem vitiar ránglætis fedranna á børnunum og barnabørnønum, inn til þridia og fiorda lids.

8. Og Moses fell strax nidur til jardar, og tilbad hann,

9. Og sagde: Drottinn! hafe eg funded nád fyrer þínum augum, þá fari Drottinn med oss, þvi þad er eitt hardsvírad folk, og vert líknsamur yfer vorum syndum, og misgerdum, og lát oss vera þinn arf.

10. Og hann sagde: siá! eg vil gera einn sáttmála, í auglite alls þíns folks, og eg vil gera dádsamlega hlute, hvilíkir alldrei voru fyrr gerder í nockru lande, eda hiá nockru folke. Og allt þad folk sem þú ert á medal skal siá Guds gerning, þvi þad skal vera dádsamlegt sem eg skal gera vid þig.

11. Hallt þad eg byd þer í dag; siá! eg vil útreka þá Amoreos, Cananeos, Hetheos, Phereseos, Heveos, og Jebuseos fyrer þer,

12. Varast þú, ad þú gerer nockurn sáttmála vid innbyggiara þess lands, sem þú innkemur, ad þeir verde þer eigi til einnrar hneixlunar á medal ydar.

13. Helldur skalltu nidurbrióta þeirra alltare, og sundur meria þeirra afgude, og høggva þeirra lunda nidur.

14. Þú skallt eigi tilbidia nockurn annann Gud, þvi Drottinn kallast vandlætare, þvi hann er einn vandlátur Gud,

15. Uppá þad, ef þú gerer nockud samband med landsins innbyggiara, og þá þeir fremia hór epter þeirra Gudum, og offra til sinna Guda, ad þeir eigi bióde þer, og þú eter af þeirra fórnum,

16. Og taker þeirra dætur til handa sonum þínum, og þær enar sømu gere hór epter sínum afgudum, og kome þínum syne til ad fremia hór, epter sínum afgudum.

17. Þú skallt engenn steypt skúrgod gera þer.

18. Þú skallt hallda ósyrdra brauda hátíd, og eta ósyrd braud í siø daga, sem eg hefe boded þer, í Abibs mánadar tíma, fyrer þvi, ad þú fórst af Egyptalande, í þeim mánade Abib.

19. Allt þad sem fyrst opnar sinnar modur kvid, þad er mitt, hvad sem þad er; allt karlkins á medal fenadarins, sem opnar sínnar modur kvid, hvert helldur þad er naut eda sauder.

20. Enn frumburd asnans skalltu leysa med einum saud; enn ef þú villt eigi leysa hann, þá briot hann úr hálslidunum. Allann frumburd af þínum sonum skallt þú leysa. Og þar skal engenn byrtast med tómum høndum fyrer mer.

21. Sex daga skalltu erfída, þann siøunda dag skalltu hvílast, bæde med plóg og kornskurd.

22. Þú skallt hallda viku-hátídena med þeim fyrsta áverxte af hveitekornskurdenum, og þá innburdar-hátíd, þegar áred er úte.

23. Þrisvar sínum um áred skal allt karlkins opinnberast fyrer drottnanda Drottne, og Gude Israels.

24. Og þá eg hefe utreked heidingiana frá þer, og þín landamerke verda vídare, skal eingenn gyrnast þitt land, þegar þú so upp fer, til ad byrtast fyrer Drottne þínum Gude, þridr reisur um áred.

25. Þú skallt eigi offra míns offurs blód uppá súrt braud, og þú skallt ecke láta afganga, inn til morguns, af páska hátídarennar offre.

26. Þú skallt bera til Drottins þíns Guds húss þann fyrsta ávøxt af þínum jardargróda: þú skallt eigi matgera kided medan þad er á sinnar modur miolk.

27. Og Drottinn sagde til Mose: skrifa þú þesse ord; þvi epter þessum ordum hefe eg gert einn sáttmála vid þig, og vid Israel.

28. Og Moses var þar hiá Drottne í fiørutíu daga, og fiørutiu nætur, og hann át eigi braud og ei drack hann vatn. Og hann skrifade á tøblurnar soddann einn sáttmála, þau tíubodord.

29. Enn sem Moses geck nú ofann af fiallenu Sinai, hafde hann tvær vitnisburdarins tøblur í sinni hende, og hann visse eigi ad geislar stodu af hans andlitis húd, þar af, ad hann hafde talad vid Drottinn.

30. Og sem Aaron og øll Israels børn sáu, ad geislar stódu af hans andlite, þá þordu þeir eigi ad nálgast til hans.

31. Þá kallade Moses á þá, og þeir sneru ser til hans, bæde Aaron, og þeir aller yppurstu af almúganum, og hann talade vid þá.

32. Epter þad gengu øll Israels børn til hans. Enn hann baud þeim ad hallda, allt þad sem Drottinn hafde talad vid hann á fiallenu Sinai.

33. Og þá hann talade allt þetta fyrer þeim, let hann skylu fyrer sitt andlit.

34. Enn þá hann geck inn fyrer Drottinn, ad tala vid hann, þá tók hann skyluna frá, þar til hann geck út aptur, og þá hann kom út, og talade vid Israels børn, þad hønum var boded,

35. Þá sáu Israels børn á hans andlit, hvernenn geislar stodu af hans andlits húd, þá let hann skyluna fyrer sitt andlit ad nyu, þar til hann geck inn aptur ad tala vid Drottinn.

## 35. Capitule.

1. Og Moses samansafnade øllum almúganum Israels barna, og sagde til þeirra: þetta er þad, sem Drottinn hefir boded, ad þer skylldut gera.

2. Sex daga skulud þer erfida, enn þann siøunda dag skulud þer helgann hallda, einn sabbathsdag, sem er hvíld Drottins. Hver sem gerer nockud erfide á þeim deig, hann skal deya.

3. Þer skulud eingann elld gera í øllum ydrum hybylum, um sabbathsdagenn.

4. Og Moses sagde til alls almúgans Israels barna: þetta er þad, sem Drottinn hefir bifalad,

5. Gefed Drottne upplyptingar offur á medal ydar, so hver bere Drottne eitt upplyptingar offur viliuglega, gull, silfur, kopar,

6. Gult silke, skarlat, purpura, hvítt silke, og geitahár,

7. Raudlitud hrúta skinn, greifingia skinn, og tre Setim,

8. Oleum til lampanna, og jurter til smyrsla, og tililmanda reykelsis,

9. Og Onyx, og innsetta steina til líffyrtelsins, og til brioststkiøllds-sins.

10. Hver af ydur, sem er forstandigur, hann kome, og gere hvad sem Drottinn hefir boded,

11. Sem er búdena med hennar tiølldum, og þake, hringaua, sialernar, steingurnar, stolpana og fœturnar.

12. Orkena med sínum staungum, nádarstolenn, og fortialldid.

13. Borded med sínum staungum, og øllum sínum verkfœrum, skodunarbraudenn,

14. Kertastikuna til ad lysa, og hennar verkfœre; lampana þar til, og oleum til liósanna,

15. Alltarid, ad gera reyk á, med sínum staungum; smyrslenn og jurternar til eins sœtleiks ilms, klœdid fyrer tialldbúdarinnar dyrum.

16. Brenneförna alltarid, med sinne kopargrind, staungum, og øllum sínum umbúnade; vatnkered med sínum fœte,

17. Langtiølldinn tialldbúdargardsins med sínum stólpum og fótum; klœdenn í hlidum tialldbúdargardsins,

18. Hœlarner til tialldbúdargardsins med þeirra støgum.

19. Klœdenn sem heyra til þionustugerdenne, ad þiona med í helgedomenum, Aarons prests heiløgu klœde, og hans sona klœde, til prestáembættesins.

20. Þá geck allur almúge af Israels børnum út frá Mose.

21. Og aller þeir sem gáfu giarnann og velviliuglega komu, og báru upplyptingar offur til Drottinns, ad gera þad sem tilheyrde vitnisburdar búdenne, og til allrar þeirrar þionustu, og til þeirra helgu klœda.

22. So báru bœde Menn og kvinnur, sem gerdu þad velviliuglega, armspanger, eyrnahringa og speingur, og allrahanda gullbunad. Þar til bar hver madur gull til upplyptingar fyrer Drottni.

23. Og hver madur sem hafde gult silke, skarlat, purpura, hvitt silke, geita hár, raudar hrúta gœrur, og greifingia skinn, þad bar sá framm.

24. Og hver sem upplypte silfre eda kopar, hann bar þad framm til upplyptingar, fyrer Drottne, og hver sem fann surutre hiá ser, þá bar hann þad framm til allsháttads smídis Guds þionustugerdar.

25. Og þær konur sem voru forstandugar, þær spunnu med sínum høndum og frammbáru sinn verknad, af gulu silke, skarlate, purpura, hvítu silke,

26. Og hverar kvinnur sodd ann ersíde kunnu, og voru viliugar þar til, þær spunnu geita hár.

27. Enn høfdingiarner báru Onyx og greypta steina framm, til lískyrtilsins, og briostskiølldsins,

28. Og jurter, og oleum til kertastikunnar, og til smyrslanna, og til ilmanda reiks.

29. So báru Israels børn velviliuglega framm, bœde Menn og kvinnur, til alls háttads gernings, sem Drottinn hafde boded fyrer Mosen ad geraft skyllde.

30. Og Moses sagde til Israels barna: siáed! Drottinn hefir kallad med nafne Bezaleel Uri son, sonar Hur, af Juda slekte,

31. Og hefir uppfyllt hann med Guds anda, so hann er vís, hyggenn, og skickanlegur til allrahanda gernings,

32. Hann hefir hagleik ad ersída í gulli, silfre og kopar,

33. Og ad útgrafa gimsteina, og innsetia þá, ad smída tre og gera allrahanda hagleiks gerning,

34. Og hefir gefed hønum í hans hiarta hyggende, líka so Ahaliab, syne Ahisamachs, af ætt Dan.

35. Hann hefir uppfyllt þeirra hiørtu med vísdomi, til ad gera allrahanda gerning, ad útskera, verka, og sauma med gulu silke, skarlate, purpura, og hvítu silke, og ad vefa, og ad gera allrahanda gerning, og ad upphugsa kostulegt erfide.

## 36. Capitule.

1. So erfidade Bezaleel og Ahaliab, og aller hyggnustu Menn, sem Drottinn hafde gefed vísdom og skilning, ad vita hvernenn þeir skylldu smída allrahanda smíde, til helgedomsins þenustu, epter þvi øllu sem Drottinn hafde boded.

2. Og Moses kallade Bezaleel, og Ahaliab, og alla vísa Menn sem Drottinn hafde gefid vísdom í þeirra hiørtu, sem voru aller þeir sem med einum fríum vilia budu sig siálfa til, og gengu framm ad erfida, á þeim verknade.

3. Og þeir medtóku til sín af Mose, alla þá lypting, sem Israels børn frammbáru til ad gera þann gerning med, sem heyrde til helgedomsins þionustu, so hún skyllde verda gerd, þvi þeir báru hvern morgun sínar velviliuglegar gáfur til hans.

4. Þá komu aller þeir vísustu, sem erfidudu uppá helgedomsins gerning, hver í sinne idiu, sem þeir gerdu,

5. Og søgdu til Mosen, folked ber ofmiked framm, meir enn þar gerest þørf til gernings þessarar þionustu, sem Drottinn hefir boded ad gera.

6. Sídann baud Moses ad hrópa skyllde út um herbúdernar, ad eingenn skyllde bera meira framm til helgedómsins lyptingar. Og þá let folked af ad bera framm,

7. Þvi þad var nog til allsháttads gernings, sem þar var ad gera, og þad geck þó af.

8. So gerdu aller þeir vísuMenn, sem voru á medal erfidaranna, ad gerninge tialldbúdarennar, tíu tiølld af hvít-tvinnudu silke, gulu silke, skarlate, purpura, Cherubim, forkostulega gert.

9. Hvert tialld var átta og tuttugu álna langt, og fiøgra álna breidt: og þau voru øll vid einn máta,

10. Og Menn bundu fimm tiølld tilsamans, hvert vid annad,

11. Og gerdu gular lyckiur í hvern jadar á tiølldunum,

12. So þau mættu bindast tilsamans,

13. Já, fimmtíu lyckiur á hveriu tiallde, ad festa þau samann med. Og þeir gerdu fimmtíu hringa af gulle, og bundu þad eina tialld til þess annars med þeim, so ad þar yrde ein tialldbúd.

14. So gerde hann ellufu tiølld af geita háre, til þaks yfer tialldbúdena.

15. Þriátíu álna laung, og fiøgra álna breid, øll voru þau jafnlaung.

16. Fimm feste hann til samans ser í lage, og sex tilsamans, í ødru lage.

17. Og hann gerde vel fimmtíu lyckiur í jadrana, á hveru tiallde, ad þau þarmed mættu samanbindast.

18. Og gerde fimmtíu koparkróka, ad binda tialldbúdina tilsamans med í eitt.

19. Og hann gerde eitt þak yfer búdena af raudu hrútskinne, og so enn nú eitt þak utann yfer þad, af greifingia skinne.

20. Og hann gerde fialer til tialldbúdarennar af triám Setim, sem standa skylldu.

21. Hver var tíu alna laung, og halfrar annarar alnar breid,

22. Og tveir tittar á serhverre, so hver mætte setiast til annarar þar med.

23. So gerde hann allar fialernar til tialldbúdarennar, so ad tuttugu af þeim sømu fiølum stódu uppá þá sydre sídu.

24. Og hann gerde fiørutíu silfur fætur under þær, tvo fætur under hvera fiøl, vid hennar tvo titta.

25. Hann gerde og líka tuttugu fialer, á þá nyrdre sídu í tialldbúdenne,

26. Med fiørutíu silfur fótum, tvo fætur under hvera fiøl.

27. Enn til baka á tialldbúdenne, í vestur, gerde hann sex fialer,

28. Og tvær fialer hiá tialldbúdarennar hornum hverumeigenn,

29. So ad hver af þeim bádum, med sinne hornfiøl, gaf sig til samans frá nedanverdu, og samteingdust ofan til med einum oka.

30. So ad sømu fialer voru átta, og sextan silfur fætur, under hverre, tveir fætur.

31. So gerde hann steingur, af triám Setim, fimm til þeirra fiala sem stodu á þá eina sídu tialldúdarennar,

32. Og fimm á þá adra sídu, og fimm á bak til, mót vestre.

33. Og gerde steingurnar, ad þær mættu stingast midt í gegnum fialernar, frá einum enda til annars.

34. Og hann bió ofan fialernar med gulli, og þeirra hringa gerde hann af gulle til stanganna, og bió steingurnar med g[illegible].

35. Hann gerde og eitt fortialld med Cherubim þar uppá, forkostulega, af gulu silk, skarlake, purpura, og hvíttvinnudu silke.

36. Og gerde fióra stolpa þar til af triám Setim, og bió þá utan med gulle, og þeirra knappa af gulle. Og steypte fiora fætur þar til af silfre,

37. Og gerde eitt fortialld fyrer tialldbúdardyrnar, af gulu silke, skarlate, purpura, stangad med hvíttvinnudu silke.

38. Og fimm stolpa med þeirra knøppum, og slo þeirra knappa og laufverk med gulli, og fimm koparfætur þar vid.

## 37. Capitule.

1. So gerde Bezaleel ørkena af triám Setim, halfrar þridiu alnar langa, og halfrar annarar alnar ad hæd og breidd.

2. Og bió hana med skíru gulli, bæde utann og innan, og gerde eina gullkoronu ofann um hana,

3. Og steypte fióra gullhringa í hennar fiogur horn, tvo á hvera sídu.

4. Og gerde steingur af Setim triám, og slo þær med gulle,

5. Og stack þeim í hringana vid sídurnar á ørkenne, ad bera hana med.

6. Og hann gerde nádarstol, af skíru gulle, halfrar þridiu alnar langann, og halfrar annarar alnar breidann,

7. Og gerde tvo Cherubim af smelltu gulle, á þeim tveimur endum nádarstolsins,

8. Einn Cherub á þessum enda, enn annan á ødrum.

9. Og Cherubim breiddu sína vænge út, ofan yfer, og huldu þar med nádarstolenn, og þeirra andlit sneru hvert á móte ødrum, og litu á nádarstolenn.

10. Hann gerde borded af triám Setim, tveggia alna langt, einnrar alnar breidt, og halfrar annarar alnar hátt,

11. Og lagde þad med klárt gull.

12. Hann gerde og einn krans af gulle þar umkring, og gerde eina listu þar umhverfis, einnrar þverhandar ad hæd, og gerde einn gullkrans í kringum listuna,

13. Og steypte fiora gullhringa þar til, og sette þá í þau fiøgur horn, á þess fiórar sætur, hardt nærre listunum,

14. Ad steingurnar mættu vera þar í, ad vera borded med,

15. Og gerde steingurnar af triám Setim, og bió þær med gulli ad bera borded med,

16. Og hann gerde kerinn sem skylldu til bordsins af kláru gulle, diska, bikara, kønnur, og skáler til ad skeinkia af og á.

17. So gerde hann og kertestikuna af kláru og smelltu gulle, þar uppá var stiakenn med pípunum, skálunum, knøppunum, og blomstrunum,

18. Sex pípur gengu út af hennar sídu, þriár á hveria sídu,

19. Þriár skáler voru á hverum pípulegg med knøppum og blomstrum,

20. Enn á liósastiakanum voru fiórar skáler med knøppum og blomstrum,

21. Já, einn knappur á millum hverra tveggia pípuleggia, so ad þar gengu sex pípulegger út af henne,

22. Og þeirra knappar, og Pípulegger þar uppá, þad var allt af smelltu gulle,

23. Og hann gerde siø lampa, med þeirra liósasørum, og liósasløckvurum, af kláru gulle,

24. Og hann gerde hana med øllum sínum búnade, af einu centner gulls.

25. Han gerde og reykelsi alltarid af triám Setim, einnrar alnar á leingd, og breidd, rett ferskeytt, og tveggia alna hátt, med sínum hornum.

26. Hann bió þad ofan, og á allar sídur umhverfis, med kláru gulli, og so hornenn med, og gerde einn gullkrans í kringum þad,

27. Og tvo gullhringa under kransenum á bádar sídur, ad stinga steingunum í þá, ad bera þad med,

28. Enn steingurnar gerde hann af triám Setim, og bió þær med gulli.

29. Og hann gerde þau helgu smyrsl, og reykelsid, af hreinum jurtum, epter smyrslamakarans kunnattu.

## 38. Capitule.

1. Hann gerde og brennefórnaalltare af tre Setim, fimm alna langt og breidt, rett ferskeytt, og þriggia alna hátt.

2. Og hann gerde fiøgur horn, sem gengu út af þvi á þess fiórum hyrningum, og yfersló þad utan med kopar.

3. Og gerde allt þad, sem heyrde til alltaresins, øskupotta, skeyfar, munnlaugar, matkroka, elldpønnur, allt þetta af kopar.

4. Og gerde eina grind í kringum alltarid, sem eitt net, af kopar, frá nedanverdu, og upp til mids á alltared.

5. Og steypte fióra hringa á þeim fiórum hornum á kopargrindenne,

6. Ad stinga staungunum þar í, sem hann hafde gert af triám Setim, og sló þær med kopar,

7. Og stack þeim í hringana, vid sídurnar á altarenu, til ad bera

þad med. Og gerde þad holt innann.

8. Hann gerde og vatnkered af kopar, og þess stett af kopar, þvert yfer frá konunum, sem þionudu fyrer samkundutialldbúdardyrunum.

9. Hann gerde og einn gard mót sudre, med einu langtiallde af hvíttvinnudu silke, hundrad alna løngu,

10. Med sínum tuttugu stolpum, og tuttugu fótum af kopar, enn þeirra knappar og laufverk af silfre

11. Líka so á þá nyrdre sídu, hundrad alna, med tuttugu stolpum, og tuttugu fótum af kopar,

12. Enn þeirra knappar og laufverk af silfre.

13. Enn á þá vestre sídu, fimmtíu alna, med tíu stolpum, og tíu fótum, enn þeirra knappar og laufverk af silfre.

14. Enn á þá eystre sídu fimmtíu alna,

15. A hvera sídu forgards-portsins fimmtan alner, iá, med þremur stolpum, og þremur fótum. Og allt tialld tialldbúdargardsins var af hvíttvinnudu silke,

16. Og fæturnar til stolpanna af kopar, og þeirra knappar og laufverk af silfre, so ad þeirra høfud voru sleigenn med silfre,

17. Enn þeirra laufverk af silfre á øllum gardsins stolpum.

18. Og fortialldeđ í inngaungu gardsins stack hann med gulu silke, skarlate, purpura, og hvíttvinnudu silke, tuttugu alna langt, og fimm alna hátt, epter þeim mæler, sem tiølldenn tialldbúdargardsins voru.

19. Þar til fióra stolpa, og fióra fætur af kopar, og þeirra knappar af silfre, og þeirra høfud sleigenn, og þeirra kransar af silfre,

20. Og aller hælar til tialldbúdarennar, og til gardsins rett umkring, voru af kopar.

21. Þetta er nú summann til vitnisburdar búdarennar, sem nú er upp talenn, sem Moses hafde sagt, til Guds þionustugerdar, sem Levitarner skylldu hallda, under Ithamar Arons prests sonar hende.

22. Og þetta tilreidde Bezaleel, sonur Uri, son ar Hús, af ætt Juda, allt saman, líka sem Drottinn baud Mose.

23. Og Ahaliab Ahisamachs son, af ætt Dans, med honum, þvi hann var meste hagleiksmadur til ad skera út, ad verka, og ad stanga med gulu silke, skarlate, purpura og hvítu silke.

24. Allt þad gull sem smídad var til þess alls helgedóms búnings, þad sem gefed var til upplyptingar offurs, er níu og tuttugu centener, siø hundrud og þriatíu siklar, epter helgedomsins sikle.

25. Enn silfred, sem frá almúganum kom, var hundrad centener, þusund siø hundrud, siøtíu og fimm siklar, epter helgedomsins sikle.

26. So margt høfud, so margur halfur sikell epter helgedomsins sikle, af øllum þeim sem talder voru, frá tuttugu árum, og þar yfer, sex hundrad sinnum þusund, þriu þusund, fimm hundrud og fimmtíu.

27. Af þvi hundrade centener silfurs steyptu Menn fæturnar til helgedomsins, og fæturnar til fortialldsins, hundrad fætur af hundrad centener, iá, eitt centener í hvern fót.

28. Enn af þvi þusund, siø hundrud, siøtíu og fimm siklum, gerdu menn knappa ofann á stolpana,

og þeirra høfud yferfodrud, og þeirra laufverk.

29. Enn koparenn, sem gefenn var til upplyptingar offurs var siøtíu centener, tvø þusund og fiogur hundrud siklar,

30. Þar af gerdu Menn fæturnar til dyranna, fyrer samkundu tialldbúdena, og kopar-alltared, og kopar-grindernar þar á, og allt þad sem heyrde til alltarenu.

31. Þar til fæturnar til gardsins, allt umkring, og fæturnar til portanna á gardenum, allan saum til tialldbúdarennar, og alla hæla til tialldbúdargardsins allt umkring.

## 39. Capitule.

1. Enn af þvi gula silke, skarlate og purpura, gerdu þeir embættis skrúdann hauda Aarone til þenustu í helgedomenum, sem Drottinn hafde boded Mose.

2. Og hann gerde líſkyrtelenn af gulle, gulu silke, skarlate, purpura, og hvittvinnudu silke.

3. Og slóu gulled, og klipptu til þrádar, so þad mátte kostulega vefast á millum guls silkes, skarlats, purpura, og hvíts silkis,

4. So líſkyrtellen mátte festast samann á bádum øxlunum, og bindast til samans á bádum hlidunum.

5. Og hans linde var epter sama hagleik og gerninge, af gulle, gulu silke, skarlate og purpura, og hvíttvinnudu silke, sem Drottinn hafde boded Mose.

6. Og þeir settu tvo Onyx steina greypta í gull umkring, útgrafna af steinsnídaranum med Israels barna nøfnum.

7. Og festu þá á axlernar á líſkyrtelenn, ad þeir steinar skylldu vera Israels børnum til einnrar minningar, sem Drottinn hafde bífalad Mose.

8. Og þeir gerdu briostskiølldenn epter þeim sama hagleik og gerninge, sem líſkyrtellenn var gerdur, af gulle, gulu silke, skarlate, purpura, og hvittvinnudu silke,

9. So ad hann var ferskettur og tvøfalldur, spannarlangur, og spannar breidur.

10. Og hlódu hann med fiórar rader af steinum. Í fyrstu rød var Sardis, Topaser, og Smaragdus,

11. Í annare rød, Rubin, Saphir, og Demant,

12. Í þridiu, Lyncurer, Achat, og Amethist.

13. Í fiórdu, Turkous, Onyx og Jaspis,

14. Greypter í gull, í øllum rødunum umkring. Og steinarner stódu epter nøfnum tolf Israels barna, útgrafner af steinsnídaranum, hver vid sitt nafn, epter þeim tolf kinkvíslum.

15. Þeir gerdu og á briostskylldenum kediur med tveimur endum, af kláru gulle,

16. Og tvær gullspeingur, og tvo gullhringa, og festu þá tvo hringa í tvø horn á briostskylldenum.

17. Og stungu so þeim tveimur gullfestum í þá tvo hringa, sem voru í hornum briostskiølldsins,

18. Enn þá tvo enda á samre seste settu þeir vid þær tvær speingur, og festu þær vid jadarinn á líſkyrtlenum, hveria þvert yser frá annare.

19. So gerdu þeir adra tvo gullhringa, og festu þá í þau ønnur tvø hornenn á briostskylldenum, í sínum stad, so þad lá skrautlega á líſkyrtlenum.

20. Og þeir gerdu adra tvo gullhringa: þá settu þeir til tveggia randa, nedann á líſkyrtlenum,

hvern Þvert yfer frá ødrum, Þar, sem líffyrtellenn geck nedann til samans,

21. So ad briostskiølldurenn festest med sínum hringum vid Þá hringa á líffyrtlenum, med einnre gulu snúru, so ad hann var festur vid líffyrtelenn, og eigi laus frá líffyrtlenum, sem Drottinn bifalade Mose.

22. Hann gerde og einn silkemøttul, auk líffyrtilsins, allann verkadann af gulu silke,

23. Og halsmál midt uppá, med einum borda, falldad kringum hálsmáled, ad Þad skyllde eigi rifna.

24. Og Þeir gerdu granata eple nedan á hans fallde, af gulu silke, skarlate, purpúra, og hvít-tvinnudu silke,

25. Og gerdu biøllur af kláru gulle, og settu Þær á millum granata eplanna, nedann vid falldinn allt umkring á silkemøttulenn,

26. So Þar var eitt granata eple og ein bialla, allt umkring á falldenum, til ad Þena Þar í, so sem Drottinn hafde bifalad Mose.

27. Þeir gerdu og mióa kyrtla, af hvítu tvinnudu silke, til Arons og hans sona,

28. Og eitt høfudklæde af hvítu silke, og Þær føgru húfur af hvítu silke, og undir-klæde af hvítu tvinnudu lerepte,

29. Og Þeir støngudu lindann med hvíttvinnudu silke, gulu silke, skarlate, purpura, sem Drottinn hafde boded Mose.

30. Þeir gerdu og ennisspaungena, sem var sú helga korona, af kláru gulle, og grofu skrifft Þar í, Drottins helgedomur.

31. Og bundu einn gulann kreigel Þar vid, ad hann skyllde festast ofann til á høfudklædid, sem Drottinn hafde boded Mose.

32. So var nú allur umbúnadur samkundu tialldbúdarennar fullgerdur. Og Israels børn gerdu allt Þad, sem Drottinn hafde bifalad Mose.

33. Og Þeir báru tialldbúdena til Mose, búdena og allann hennar umbúnad, krókana, fialernar, steingurnar, stolpana, fæturnar,

34. Þaked af raudlitudu hrútskinne, Þaked af greisingia skinne, og fortiallded,

35. Vitnisburdar ørkena med sínum staungum, og nádarstolenn,

36. Borded med sínum øllum búninge, og skodunar braudenu,

37. Þá føgru kertastiku med lømpunum tilreidda, og øllu Þvi sem Þar heyrde til, oleum til liósanna.

38. Gull alltared og smyrslinn, og Þad kostulega reykelse, og fortialld í inngange búdarenner,

39. Kopar alltared med sínne kopargrind, med sínum staungum, og øllum umbúnade, vatnkered med sínum fæte,

40. Langtiølldenn til gardsins, med Þeirra stolpum og fótum, fortiallded í inngøngu gardsins, med sínum støgum og nøglum, og allt Þad sem heyrer til Þionustugerdar, í samkundutialldbúdenne.

41. Arons prests embættis klæde, til ad Þiona í helgedomenum, og hans sona klæde, sem Þeir skylldu hafa, Þá Þeir fremdu kennemannlegt embætte.

42. Og Israels børn gerdu allt Þad, sem Drottinn hafde befalad Mose, til allrar Þessarar Þionustu.

43. Og Moses skodade allann Þennann gerning, ad Þeir høfdu gert Þad í allann máta, sem Drott-

inn hafde bifalad, og hann blessade þá.

## 40. Capitule.

1. Og Drottinn mællte vid Mosen, og sagde,
2. Þú skallt uppreisa samkundu-tialldbúdena, þann hinn fyrsta dag í þeim fyrsta mánade.
3. Og þú skallt og setia vitnisburdarins ørk þar í, og heingia fortialldeð fyrer ørkena.
4. Þú skallt og bera borded þangad, og tilbúa þad. Þú skallt og setia kerta stikuna þangad, og lampana þar uppá.
5. Þú skallt og setia þad gyllene-reyk-alltare fyrer vitnisburdarørkena, og heingia so eitt fortialld fyrer tialldbúdarennar dyr.
6. Enn þú skallt setia brenneoffursins alltare utann fyrer samkundu-tialldbúdar dyrnar.
7. Og vatnkered millum samkundu-tialldbúdarennar og alltaresins, og láta vatn þar í.
8. Og setia tialldbúdargardenn þar rett umkring og heingia fortialldeð fyrer portenn á tialldbúdargardenum.
9. Og þú skallt taka smyrslenn, og smyria tialldbúdena, og allt þad sem þar er inne, og vígia hana med øllum hennar umbúnade, so hún se heiløg.
10. So skalltu og smyria brenne-offursins alltare, med øllum sínum verkfærum, og vígia þad, so þad se þad allra-heilagasta.
11. Þú skallt og smyria vatnkerid og þess fót, og vígia þad.
12. Þú skallt leida Aaron og hans sonu til samkundu-tialldbúdar dyranna, og þvo þá med vatne,
13. Og færa Aaron í þau heiløgu klæde, og smyria og vígia hann, ad hann se minn kennemadur.
14. Þú skallt og leida hans sonu framm, og færa þá í þá midu kyrtla,
15. Og smyria þá, líka sem þú smurder þeirra fødur, ad þeir skulu vera míner kennemenn. Þesse smurning skal vera þeim til eins eylífs kennemannsskapar, hiá þeirra epterkomendum.
16. Og Moses gerde alla hlute, so sem Drottinn hafde boded hønum.
17. So var nú tialldbúdenn uppreist, þann fyrsta dag í þeim fyrsta mánade, á þvi ødru áre.
18. Og þá Moses hafde uppreist hana, sette hann fæturnar, og stafernar, og steingurnar, og reiste stolpana upp,
19. Og útbreidde tiølldenn yfer búdena, og lagde tialldþøkenn þar uppá, sem Drottinn hafde boded hønum.
20. So og tók hann vitnisburdenn, og lagde hann í ørkena, og sette steingurnar í ørkena, og sette nádarstolenn ofann á ørkena.
21. Og bar ørkena inn í tialldbúdena, og heingde fortialldeð framann fyrer vitnisburdarins ørk, sem Drottinn hafde bifalad hønum.
22. Og hann sette borded í samkundu tialldbúdena í horne búdarennar í mót nordre, fyrer framann fortialldeð,
23. Og tilreidde braud þar uppá fyrer Drottni, sem Drottinn hafde bifalad hønum.
24. So sette hann og kertastikuna þar inn, þvert yfer frá bordenu, í þad horn í tialldbúdenne mót sudre,
25. Og sette lampana þaruppá fyrer Drottni, sem Drottinn hafde bifalad hønum.
26. Hann sette og gull-alltared þar inn, fyrer framann fortialldeð,

27. Og gerde ſætann reykelſis ilm þar uppá, ſem Drottinn hafde bifalad hønum.

28. Og hann heingde eitt fortialld fyrer tialldbúdar dyrnar,

29. Enn brenneforna alltared ſette hann fyrer tialldbúdar dyrnar, hiá ſamkundu tialldbúdenne, og offrade þar á brennefornum og matoffre, ſo ſem Drottinn hafde bifalad hønum.

30. Og hann ſette vatnkered í millum ſamkundu-tialldbúdarennar, og alltareſins, og let þar vatn í, ad þvo af.

31. Og Moſes og Aaron og hans ſyner þvodu ſínar hendur og fætur þar af,

32. Þvi þeir ſkylldu þvo ſer, þá þeir gengu inn í ſamkundutialldbúdena, eda þá þeir gengu framm til alltareſins, ſo ſem Drottinn hafde bifalad hønum.

33. So reiſte hann búdargardenn upp í kringum tialldbúdena, og alltarid, og heingde fortialldet í forgardſinns port: ſo fullkomnade Moſes þann allann gerning.

34. Þá hulde eitt ſky ſamkundu tialldbúdena, og dyrd Drottins uppfyllde hana.

35. Og Moſes gat eigi genged inn í ſamkundu-tialldbudena, þá ſtund, ſem ſkyed ſtod þar yfer, og á medana Guds dyrd uppfyllte tialldbúdena.

36. Og þá ſkyed tók ſig upp frá tialldbúdenne, þá ferduduſt Iſraels børn, ſo oft ſem þeir ferduduſt.

37. Enn þá ſkyed tók ſig eigi upp, þá voru þeir kyrrer, og ferduduſt eigi, fyrr enn þann dag, þad tók ſig upp.

38. Þviad Drottins ſky var um daga yfer tialldbúdenne, og um nætur var þad glóande elldur, fyrer augum alls Iſraels hús, ſo leinge ſem þeir voru á leidenne.

Ender á annare Bok Moſe.

# Pridia Bok Moſe.

## 1. Capitule.

1. Og Drottinn kallade Moſen, og talade vid hann úr ſamkundu tialldbúdenne og ſagde.

2. Tala þú vid Iſraels børn, og ſeig þú til þeirra: hver af ydur ſem fórn vill færa Drottne, hann fære hana af kvikfe, nautum og ſaudum.

3. Vile hann offra brennefórn af nautum, þá ſkal hann offra þvi ſem karlkins er, og vammalauſt, utann fyrer ſamkundu-tialldbúdar dyrunum, ſo þad verde Drottni þacknæmt af høuum.

4. Og hann ſkal leggia ſína hønd yfer høfud brennefornarennar, þá mun þad verda þacknæmt, og forlíka hann.

5. Hann ſkal ſæfa þad unga naut fyrer Drottne, og preſtarner, Aarons ſyner, ſkulu bera bloded framm, og ſtøcka þvi umkring á alltared, þad ſem ſtendur fyrer dyrum ſamkundu-tialldbúdarennar.

6. Og húdena ſkulu þeir flá af brennefornenne, ſo ſkal hún og høggaſt í ſtycke.

7. Enn Aarons preſts ſyner ſkulu gera einn elld á alltarenu, og leggia þar yfer vid,

8. Og þeir ſkulu leggia ſtyckenn á videnn, høfuded og mørenn.

9. Enn inniflenn og fæturnar ſkulu þeir þvo í vatne. Og preſturenn ſkal brenna þad alltſamann á alltarenu, til brenneoffurs. Þad

er einn elldur til sætleiks ilms fyrer Drottni.

10. Enn vile hann gera eitt brenneoffur af saudum eda geitum, þá skal hann offra því, sem ad er karlkins og lytalaust.

11. Og skal slátra því hiá sídu alltaresins í nordur, fyrer Drottni. Og prestarner Aarons syner, skulu støcka blódenu í kring á alltared.

12. Og þad skal høggast í stycke, og presturenn skal leggia høfuded og mørenn uppá videnn og elldinn sem er á alltarenu,

13. Enn innifleun og fæturnar skal þvo í vatne. Og presturenn skal offra því, og brenna þad alltsamann á alltarenu, til brenneoffurs. Þad er einn elldur til sætleiks ilms fyrer Drottni.

14. Enn vile hann offra Drottni brenneoffre af fuglum, þá láte hann þad vera af turtil-dúfum, eda af ungum dúfum.

15. Og presturenn skal bera þad til alltaresins, og klyppa høfuded þar af, so þad se brennt á alltarenu, og láta blóded renna nidur hiá sídu alltaresins,

16. Enn kasta sarpenum og fiødrunum í þá øskuhrúgu austann til hiá alltarenu.

17. Og hann skal kliufa vængena, og briota þá eigi af. Og so skal presturenn kveikia elld í vidnum á alltarenu til brenneoffurs. Þad er elldur til eins sætleiks ilms fyrer Drottni.

## 2. Capitule.

1. Þegar ein sál vill gera Drottni matoffur, þá skal þad gerast af hveitemiøle, og skal hella oleum þar yfer, og so leggia reykelse þar á,

2. Og bera þad so til prestanna Aarons sona. Þá skal presturenn taka sína hønd fulla af því sama hveitimiøle, og oleum, med øllu samann reykelsenu, og brenna þad á alltarenu, til einnrar minningar, þad er elldur eins sætleiks ilms fyrer Drottni.

3. Enn þad sem gengur af matoffrenu, þad skal heyra til Aarone og hans sonum, þad skal vera þad allra-helgasta, af ellde Drottins.

4. Enn ef hann vill gera matoffur af því, sem bakad er í ofne, þá skal hann taka ósyrdar hveitimøls køkur, meingadar med vidsmiøre, og ósyrda þunna leifa, smurda med vidsmiøre.

5. Enn se þitt matoffur nockud af því, sem bakad er í pønnu, þá skal þad vera af ósyrdu hveitis miøle, meingudu med vidsmiøre.

6. Og þú skallt skipta því í stycke, og hella oleum þar yfer, þá er þad eitt matoffur.

7. Enn se þitt matoffur nockud þad sem steikt er á rist, þá skalltu gera þad af hveiti-miøle og vidsmiøre,

8. Og þad matoffur, sem so gerest til Drottins, skalltu bera til prestsins, hann skal bera þad til alltarisins,

9. Og upphefia þad sama matoffur til einnrar minningar, og uppbrenna þad á alltarenu. Þad er elldur eins sætleiks ilms fyrer Drottni.

10. Enn þad sem afgengur skal heyra Aarone og hans sonum til, og þad skal vera þad allra-helgasta af ellde Drottins.

11. Allt þad matoffur sem þer viled fórnfæra Drottni, þad skulud þer gera án súrdeigs, því ecki súrdeig, edur hunáng skal vera saman vid þad, sem þer skulud brenna til ellds fyrer Drottni.

12. Enn í-fórn fyrsta jardar

ávartar, skulud þer bera þau fyrer Drottinn, enn eigi skulu þau koma á nockud alltare til eins sæts ilms.

13. Þú skallt sallta allt þitt matoffur, og þitt matoffur skal alldrei vera fyrer utann þíns Guds sáttmála sallt, þvi þú skallt offra sallte í øllum þínum fórnum.

14. Enn viler þú gera Drottni matoffur af þínum fyrsta áverte, þá skalltu þurka þad græna axed vid elld, og melia þad smátt, og offra so matoffre af þínum fyrsta ávexte,

15. Og þú skallt láta vidsmiør þar uppá, og leggia reykelse þar yfer, þá er þad eitt matoffur.

16. Og presturenn skal brenna nockud af þvi enu malda, og af vidsmørenu, med øllu reykelsenu, til einnrar minningar, þad er einn elldur fyrer Drottni.

## 3. Capitule.

1. Enn se hans offur eitt þacklætis offur af nautum, hvert þad er uxe, edur kyr, þá skal hann þad offra fyrer Drottni sem er lytalaust.

2. Og hann skal leggia sína hønd á høfuded á þvi, og slátra þvi fyrer samkundu=tialldbúdar dyrunum. Og prestarner, Arons syner, skulu støckva blódenu í kring á alltared.

3. Og skal so offra Drottni af sama þacklætis offre, sem er, allann innisla mørenn,

4. Þau tvø nyrunn med nyrnamørnum, sem þar er vid malernar, og lifrarnetiuna afrifna, med nyrunum.

5. Og Arons syner skulu brenna þad á alltarenu, til brenneoffurs, á vidnum þeim, sem liggur á elldenum, þad er elldur til sætleiks ilms fyrer Drottni.

6. Enn vile hann gera Drottni eitt þacklætis offur af smáfenade,

hvert þad er grad=fe eda ber=fe, þá skal þad vera án lyta.

7. Se þad eitt lamb, þá skal þad bera framm fyrer Drottinn,

8. Og leggia sína hønd á høfuded á þvi, og slátra þvi fyrer samkundu tialldbúdenne. Og Arons syner skulu støckva blódenu umkring á alltared,

9. Og offra so Drottni af þvi þacklætis offre til elldsins, sem er mørenn og alla rófuna, slitna frá hriggnum, og allann mørenn sem er á innislunum,

10. Nyrunn bæde med nyrnamørnum, vid malernar, og lifrarnetiuna, med nyrunum afslitnum.

11. Og presturenn skal brenna þad á alltarenu, til ellds matar fyrer Drottni.

12. Enn se hans offur ein geit, og leider hann hana fyrer Drottinn,

13. Þá skal hann leggia sína hønd yfer hennar høfud, og slátra henne fyrer utann samkundu=tialldbúdena. Og Arons syner skulu støckva blódenu rett umkring á alltared,

14. Og skulu offra Drottni eitt offur þar af, sem er innisla mørenn,

15. Og tvø nyrunn, med þeim mør, sem þar er vid, vid lendarnar, og lifrarnetiuna, med nyrunum afslitnum.

16. Og presturenn skal upptendra þad á alltarenu til ellds matar, til eins sæts ilms.

17. Allt þad feita heyrer Drottni til, þad skal vera einn eylífur plagsidur hiá ydrum epterkomendum, í øllum ydrum hybylum, ad þer skulud hverke eta mørenn, ei helldur blóded.

## 4. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde,

2. Tala þú vid Israels børn,

selgiande: Þegar nockur sál misgerer óvitande í móte nockru boðorde Drottins, hvad hann eigi skylde gera,

3. Sem er, ef einn prestur, sá sem smurdur er, syndgar, so hann hneixlar folked, þá skal hann leida framm fyrer sínar synder, þær hann hefir gert, einn ungann uxa, sem er án lyta, til syndaoffurs, fyrer Drottni.

4. Og hann skal leida þann uxa fyrer samfundu-tialldbúdardyrnar, og leggia sína hønd yfer hans høfud og slæsa hann fyrer Drottni.

5. Og presturenn sá, sem er smurdur, skal taka af uxans blóde, og bera þad inn í samkundu tialldbudena,

6. Og hann skal drepa sínum fingre í blóded, og støckva siøsinnum þar af, fyrer Drottni, framan fyrer fortiallde helgedomsins.

7. Hann skal og láta af sama blóde, uppá reykalltaresins horn, sem stendur fyrer Drottni, í samkundu tialldbudenne, og øllu blódenu skal hann úthella hiá brennefórna alltaresins fæte, sem stendur fyrer samkundu-tialldbúdar dyrunum.

8. Enn øllu þvi enu feita af syndaoffrenu, skal hann upplypta, sem er, þad feita á inniflunum,

9. Tvø nyrunn med þeirra feite, sem þar filger vid lendarnar, og netiuna yfer lifrinne, afflitna med nyrunum,

10. So sem sidur er ad upplypta þvi, til þacklætes offurs af uxanum, og skal uppkveikia þad á brennefórna alltarenu.

11. Enn skinned af uxanum med øllu kiøtenu, og høfdenu, fótunum, inniflunum, og mykenne,

12. Þad skal hann allt saman bera í burtu, út fyrer herbúdernar, á einn hreinann stad, þangad sem menn plaga ad kasta øskunne, og skal upp brenna þad á vidnum med ellde.

13. Enn þá allur almúgenn í Israel misgerer, enn gerningurenn er hulenn fyrer þeirra augum, þad þeir hafe nockud gert, á móte bode Drottins, þad þeir áttu eigi ad gera,

14. Og eru so ordner sakader, enn kannast vid sídann, ad þeir hafa syndgast, þá skulu þeir frammleida einn ungann uxa, til synda offurs, og leida hann fyrer samkundutialldbúdar dyr.

15. Og þeir ellstu af almúganum skulu leggia sínar hendur yfer hans høfud, fyrer Drottni, og slátra uxanum fyrer Drottni.

16. Og presturenn, sá sem smurdur er, skal bera af blódenu uxans in í samkundu-tialldbúdena,

17. Og drepa sínum fingre þar í, og støckva þvi so í siø reisur, fyrer Drottni, fyrer framann fortiallded,

18. Og hann skal láta blóded á alltares hornenu, sem stendur fyrer Drottni í samkundu-tialldbúdenne, enn steipa øllu ødru blódenu hiá fæte brenneoffurs alltarisins, sem stendur fyrer samkundutialldbúdar dyrunum.

19. Enn allre hans feite skal hann upplypta, og upptendra hana á alltarenu.

20. Og hann skal med uxann fara, so sem hann fór med synda-offursins uxa. Og so skal kennemadurenn forlíka þá, og so verdur þeim þad fyrergefed.

21. Og skal færa uxann út fyrer herbúdernar, og upp brenna hann, so sem hann upp brende þann annann uxann fyrre, þad skal vera almúgans synda-offur.

22. Enn þá einn høfdinge synd-

gaſt, og gerer nockud í móte Drottins ſíns Guds bodorde, ſem hann ſkyllde eigi gera, og gerer þad oforvarande, ſo ad hann er ſekur ordenn.

23. Og fær ad vita ſína ſynd, ſem hann hefir gert. Hann ſkal leida framm einn kiarnhafur til fórnar, ſem er án lyta,

24. Og leggia ſína hønd á hafurſins høfud, og ſlátra hønum í þeim ſtad, ſem Menn plaga ad ſlátra brennefórnum fyrer Drottni, þad ſkal vera hans ſynda-offur.

25. Þá ſkal preſturenn taka af þvi ſynda-offurs blóde med ſínum fingre, og ſtriúka því á hornenn á brenneoffurſins alltare, og hella hinu blodenu nidur hiá fæte brennefórnar alltareſins.

26. Enn allann hans mør ſkal hann upptendra á alltarenu, líka ſem mørenn af þacklætis offrenu, og ſo ſkal preſturenn forlíka hans ſynder, og þá er þad hønum fyrergefed.

27. Enn þá nockur ſál af almúga-folkenu mis ſer ſig, og ſyndgaſt, ſo hún brytur nockud í móte einu Guds bodorde, ſem hún ſkyllde eigi gera, og verdur ſo ſek,

28. Og fær ad vita ſyna ſynd, ſem hún hefir gert, hún ſkal frammbera til fórnar eina geit laſtalauſa, fyrer þá ſynd ſem hún hefir gert,

29. Og hún ſkal leggia ſína hønd á ſyndaoffurſins høfud, og ſlátra þvi á brenneoffurſins ſtad.

30. Og preſtarner ſkulu taka af blódenu med ſínum fingre, og ſtriúka þvi á brennefórna-alltaris horn, enn hella øllu blodenu nidur hiá alltariſins fæte,

31. Enn allann mør ſkal hann taka þar af, líka ſem hann tók mørinn af þackarſórnenne, og hann ſkal upp kveikia hann á alltarenu, til eins ſæts ilms fyrer Drottni. Og ſo ſkal preſturenn ſorlíka fyrer hana, og ſo er þad henne tilgefed.

32. Enn ef hann ber eitt lamb framm til ſynda-offurs, þá ſkal hann bera framm eitt gimbrar lamb án lyta,

33. Og leggia ſína hønd yfer ſynda-offurſins høfud, og ſlátra þvi til ſynda-offurs, í þeim ſtad ſem Menn plaga ad ſlátra brenneoffre.

34. Og preſturenn ſkal taka af blódenu med ſínum fingre, og ſtriúka þvi á hornenn brennefórnar-alltariſins, og ſteipa øllu blódenu nidur hiá alltariſins fæte,

35. Enn alla hennar feite ſkal hann taka þar af, líka ſem hann tók feitena af þackoffurſins lambe, og ſkal upptendra hana á alltarenu, til eins ellds fyrer Drottne, og ſo ſkal preſturenn forlíka hans ſynd, ſem hann gerde, og ſo er hønum þad fyrergefed.

## 5. Capitule.

1. Þegar nockur ſál ſyndgaſt í þvi, ad hún heyrer nockurn bølva, og hún er vitne þar til, edur hefir þad ſed, eda fornumed, og ſeiger eigi til, hún er ſøkud fyrer eitt brot.

2. Eda nær ein ſál kemur vid nockud óhreint, hvert þad er helldur eitt hræ af óhreinu dyre, eda af fenade, eda af ſkridkvikende, og viſſi þad eigi, hann er ſaurgadur, og hefir ſyndgad.

3. Eda ef hann hrærer vid einn óhreinann Mann, hvad hellſt óhreinleika, ſem einn Madur kann óhreinn af ad verda, og viſſe þad eigi, og fornemur þad hann er ordenn ſekur.

4. Eda nær ein ſál ſver, og þad hrítur af hans munne, ad gera illa, eda vel, ſo ſem madur kann ad ſve-

ria, fyrr enn hann þad athugar og merkir, at hann er sekur í einu af þessu.

5. Enn nær þad skedur so, ad nockur miss ser sig um eitt af þessu, og vidurkenneſt, ad hann hefir syndgaſt þar í,

6. Þá skal hann frambera einn saud, eda eina geit, af hiørdenne, fyrer Drottinn, til synda-offurs, fyrer þá synd, sem hann hefir gert, so skal preſturenn forlíka hann um sína synd.

7. Enn hafe hann eigi saudenn til, so bere hann tvær turtildúfur edur tvær ungar dúfur framm fyrer Drottinn, fyrer sína synd sem hann gerde, þá fyrre til synda-offurs, þá adra til brenne-offurs,

8. Og bere þær til preſtsins; hann skal gera þá fyrre til synda-offurs, og klyppa hálsenn í sundur, fyrer aptan hnackann, og brióta þá eigi frá,

9. Og ſtøckva med syndáoffursins blode uppá alltarisins sídu, enn láta bloded, sem epter er, nidur blæda hiá alltaresins fæte, þad er synda-offur.

10. Enn þá adra skal hann gera til brennefórnar, so sem tilheyrer, og so skal preſturenn forlíka hann um hans synd, sem hann gerde, og so er hønum hún fyrergefenn.

11. Enn eige hann eige til tvær turtildúfur, eda tvær ungar dúfur, þá skal hann bera framm fyrer sína synd sitt offur, sem er, hveitemiøl, tíundapart af Ep'ha, til syndaoffurs, enn eigi Oleum skal hann leggia þar uppá, eige helldur reykelse, þvi þad er eitt synda-offur.

12. Og hann skal bera þad til preſtsins, enn preſturenn skal taka einn hremming þar af, til minningar, og upptendra þad á alltarenu, til eins ellds fyrer Drottni, þad er eitt synd-offur,

13. Og so skal preſturenn forlíka fyrer hans synd, sem hann gerde, þá er hønum hún fyrergefinn, og þad skal heyra preſtenum til, líka sem eitt mat-offur.

14. Og Drottinn mællte vid Mosen, og sagde:

15. Nær ein sál misgerer, ad hún forser sig, og syndgaſt á þeim hlutum sem Drottni eru vígder, þá þá skal hún bera sitt skulldoffur til Drottins, einn hrút án lyta af hiørdenne, sem ad vera skal ad verdaurum tveir sicli silfurs, epter helgedómsins sicle, til skulldoffurs.

16. Þar til skal hann gefa aptur so miked sem hann syndgadeſt á því vígda, og gefa enn fimmta part ad auki, og þad skal hann gefa preſtenum, hann skal forlíka hann med skulld-offursins hrút, og so fyrergefſt hønum þad.

17. Nær ein sál syndgaſt, og gerer í móte nockru bodorde Drottins, þad hún skyllde eigi gera, og visse þad eigi, hún hefir broted, og er skylldug í einum misgerninge.

18. Hann skal frammbera einn hrút af hiørdenne lítalausann, fyrer preſtenn, þann ed virdeſt ad fornfæra meige, í eitt skullda offur, hann skal forlíka fyrer hans ovitsku sem hann gerde, og visse þad eigi, og mun hønum þad fyrergefaſt,

19. Þad er skulldoffur, þad sem hann er fallenn í fyrer Drottni.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Nær ein sál syndgar, og misgerer í móte Drottni, ad hann seiger sínum náunga nei fyrer þad sem hann bifalade hønum, eda hafe hønum vered tiltruad þad ad geima eda ef hann tekr þad med ofríke, eda dregur under sig med órette,

3. Eda hafe hann funded þad

nockud sem tíndt var og seiger nei þar vid, med raungum eyde, eda gere nockud annad, hvar med einn madur misgerer í mót sínum náunga.

4. Nær þad skedur, ad hann so syndgar, og verdur sakadur,

5. Þá skal hann gesa aptur þad hann tók med ofríke, edur dró under sig med órette, eda hvad hønum var bifalad, eda hvad sem hann hefir funded, eda þad hann sór um ránglega, þad skal hann alltsamann apturgiallda, þar med skal hann gefa fimmtunge meira, þeim sem átte, samdægris, þá hann gefur sitt skulldoffur.

6. Enn fyrer sína skulld, skal hann bera fyrer Drottinn, til prestsins, einn hrút af hiørdinne án lyta, þann sem ánæger til skulldoffurs.

7. So skal presturenn forlíka hann, fyrer Drottne; þá mun hønum fyrergefast þad, sem hann hefir gert, hvar út af hann er sekur ordenn.

## 6 Capitule.

8. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde,

9. Biod þú Aarone og hans sonum, seigiande: Þetta er brenneoffursins løgmál. Brennefórnenn skal brennast á alltarenu, alla nóttena, allt til morguns, enn alltaresins elldur skal alleinasta brenna þar uppá.

10. Og presturinn skal færa sig í sinn línkyrtil, og draga sínar línbosur á sinn líkama, og hann skal burt taka øskuna, sem brenne-offursins elldur hefir gert á alltarenu, og steypa henne nidur hiá alltarenu

11. Sídann skal hann færa sig af sínum klædum, og fara í ønnur klæde, og bera øskuna út, yfer herbúdernar, á einn hreinann stad.

12. Elldurenn skal brenna á alltarenu, og aldrei slockna, presturenn skal hvern morgun kveikia í triám þar uppá, og leggia brennefórnena þar uppá, og upptendra þackoffursins feite þar uppá.

13. Elldur sa skal eylíflega brenna á alltarenu, og alldrei sløckna.

14. Og þetta er matoffursins løgmál, sem Aarons syner skulu offra yfer alltarenu, fyrer Drottni.

15. Þar skal einn upplypta hende sinne fullre af hveite miøle af matoffrenu, og af vidsmiøre, og øllu samann reykelsenu, sem liggur uppá matoffrenu, og skal uppkveikia þad á alltarenu, til eins sæts ilms, Drottne til einnrar minningar.

16. Enn Aaron og hans syner skulu eta þad sem af gengur, og þeir skulu eta þad ósyrt í helgum stad, í samkundu-tialldbúdargardenum.

17. Þeir skulu eigi baka þad med súrdeige, þvi þad er þeirra partur, sem eg hefe gefed þeim af mínu offre, þad skal vera þeim þad allra helgasta, so sem synd-offur, og skulld-offur,

18. Allt karlkins medal Aarons barna, skal eta þad, þad skal vera eitt eylíft løgmál ydrum epterkomendum, um fórnfæringar Drottins. Eingenn skal snerta þad, utann hann se vígdur.

19. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

20. Þetta skal vera þad offur, sem Aaron og hans syner skulu offra Drottne, á þeim deige sem hann er smurdur. Hveitemiøls sarla, tíunda part af einu Epha, sem er daglegt matoffur, hálfpart um morgunenn, og annann helming um aptaninn,

21. Þad skalltu tilreida med vidsmiøre, í einne pønnu, og bera þad so steikt framm, og sVodann skalltu

offra bakad, í styckium, Drottne til eins sæts ilms.

22. Og presturenn sá sem smurdur er, á medal hans sona, í hans stad, skal gera: þad er ein eylíf skickan fyrer Drottni. Þad skal brennast alltsamann.

23. Hviad allt kennemanna matoffur, skal med ollu uppbrennast, og eigi etast þar af.

24. Og Drotteun mællte vid Mosen, og sagde:

25. Tala þú vid Aaron, og hans sonu, seigiande, þetta er synda-offursins løgmál. Þú skallt og slátra synda-fórnenne í þeim sama stad, sem þú sæfer brenne-fórnena, fyrer Drottni, þad er þad helgasta,

26. Enn presturenn, sem synda-fórnena offrar, skal eta þad í helgum stad, í samkundu tialldbúdargardenum.

27. Engenn skal koma vid þad kiøt, nema sá sem vígdur er, hver sem blóde sletter uppá nockud fat, hann skal þad sem uppá slettist, þvo í helgum stad,

28. Og sá leirpottur sem þad er soded í skal í sundur slást, enn se þad soded í einum koparpotte, þá skal fægia hann og þvo med vatne.

29. Allt karlkins á medal prestanna skal eta þar af, þvi þad er allrahelgast.

30. Enn allt þad synd-offur, hvers blód sem inn verdur bored í samkundu-tialldbúdena, til einurar forlíkunar í helgedomenum, þad skal eigi etast, helldur upp brennast med ellde.

## 7. Capitule.

1. Og þetta er skulld-offursins løgmál, og þad er þad allra-heilagasta.

2. Madur skal slátra skulld-offur fórnenne, í þeim stad sem slátrad er brennefórnenne, og dreifa blódenu þar af í kringum á alltared,

3. Og allre feitenne þaraf skal offra, rofunne og því feita af innislunum,

4. Bádum nírunum med þeirre feite, sem þar er vid lendarnar, og lifrar netiunne afslitinne med nírunum.

5. Og presturenn skal upptendra þad á alltare Drottins, til eins ellds, þad er eitt skuld-offur.

6. Allt karlkins á medal prestanna skal eta þad í helgum stad, því þad er þad allra helgasta.

7. Líka sem synda-offred er, so skal og skulld-offred vera, þar skal vera, eitt løgmál um þau bæde, og þad skal heyra prestenum til, sem forlíkar þar med.

8. Hver sá prestur sem fórnar nockurs manns brenne-offre, hann skal hallda skinnenu af því brenne-offre, sem hann hefir offrad.

9. Og so allt mataroffur sem bakad er í ofne, eda á rist, eda í pønnum, þad skal heyra prestenum til, þeim sem þad offrar.

10. Og allt matoffur sem meingad er med oleo, eda se þad þurt, skal alltsaman heyra Aarons børnum til, so einum sem ødrum.

11. Og þetta er løgmál þacklætisfórnarennar, sem Menn færa Drottni.

12. Vile þeir færa lofgerdar forn, þá skulu þeir offra ósyrdum køkum, meingudum med oleo, og ósyrdum leifum, yferdreifdum med oleo, og bøkudum hveitissalla køkum, blandad med oleo.

13. Enn þeir skulu gera þetta offur uppá eina køku af syrdu braude, til þeirra þacklætis lofgerdar-offurs.

14. Og skal offra Drottni eitt af þeim øllum til eins upplyptings-

ar offurs, og þad skal heyra prestenum til, sem stockver þacklætis fórnar blódenu.

15. Og kiøted af lofgerdar offrenu, í hans þacklætis offre, skal upp etast sama dag sem þad offrast, og ecki skal leifast af þvi til morguns.

16. Og hvert helldur þad er eitt heit, eda eitt siálfvilingt offur, þá skal þad etast þann sama dag sem þad offrast. Enn ef af er leift, og þar gengur af til annars dags, þá skal þad og etast,

17. Enn hvad sem leifest af kiøtenu, þvi sem offrad er, til hins þridia dags, þad skal uppbrennast í ellde.

18. Og ef nockur etur, á þeim þridia deige, af þvi fórnfærda kiøte hans þacklætis offurs, þá verdur sá eigi þacknæmelegur, sem þad offrade. Og þad skal eigi tilreiknast hønum, helldur skal þad vera ein svívirding, og hver sú sál sem þar etur af, hún er sokud í einum misgerninge.

19. Og þad kiøt, sem snerter nockud óhreint skal eigi etast, helldur uppbrennast í ellde. Hver sem er hreinn, á sínum líkama, hann skal eta þad kiøt,

20. Og hver sál, sem etur kiøted af þacklætis offrenu, sem heyrer til Drottni, þá skal hennar óhreinleike vera yfer henne, og hún skal fyrerfarast frá sínu fólke.

21. Og ef nockur sál kemur vid nockud óhreint, se þad óhreinn madur, fenadur, eda hvad annad sem ad er svívirdulegt, og etur hann af þacklætisfornar kiøte, sem ad tilheyrer Drottni, hann skal upprætast frá sínu folke.

22. Og Drottinn mællte vid Mosen, og sagde,

23. Tala þú vid Israels børn, og seig þú þeim: Þer skulud eigi þad feita eta af uxunum, lømbum og geitum.

24. Enn þad feita af hræunum, og hvad rifed er af villudyrum, þad meiged þer hafa ydur til allsháttadrar nytsemdar, enn eige skulud þer eta þad.

25. Þvi hver sem etur þad feita af fenadenum, þeim sem Drottni er gefenn til offurs, sú sál skal upprætast frá sínu folke.

26. Eige skulud þer helldur eta blóded, hverke af fe, ne fuglum, hvar hellst sem þer búed.

27. Hver sú sál sem nockurn tíma etur blód, hún skal upprætast frá sínu folke.

28. Og Drottinn mællte vid Mosen, og sagde:

29. Tala þú vid Israelis børn, og seig so: hver sem vill færa þacklætis fórn Drottne, þá skal hann bera med ser hvad sem heyrer til þacklætis offrenu, fyrer Drottni. Enn hann skal bera þad framm med sinne hende, til offurs Drottni,

30. Sem er, þad feita á bringunne skal hann bera framm, og bringuna, so þad se ein upplypting fyrer Drottne.

31. Og presturenn skal upptendra þad feita á alltarenu, enn bringann skal heyra Aarone og hans sonum til.

32. Og þeir skulu gefa prestenum þann hægra bóg, til upplyptingar, af þeirra þackar-offre.

33. Enn hver af Aarons sonum sem offrar blódenu, af þacklætis fórnenne, og þvi enu feita, hann skal hafa þann hægra bóg til síns hlutar,

34. Þvi eg hefe teked veifunar bringuna, og upplyptingar bógenn frá Israelis børnum, af þeirra þackar-offre, og hefe gefed prestenum

Aaron,og hans sonum þad,til einn=rar eylífrar skickunar.

35. Þetta er Aarons og hans so=na smurning, af Drottins forn=færingum, á þeim deige, sem þeir voru skickader til kennemannsskap=ar Drottins,

36. Þá er Drottinn baud, á þeim deige, þá hann smurde þá, þad hon=um skyllde gefast af Israels born=um, til eins eylífs rettar, hiá ollum þeirra epterkomendum.

37. Og þetta er logmál um bren=nefórnernar, matfórnernar, synda=fórnernar, skulldafórnernar, fyl=lingar=fórner, og þackletis fórner,

38. Sem Drottinn baud Mose, uppá Sinai fialle, þann dag, sem hann haf honum bifaling til Is=raelis barna, ad þeir skylldu færa Drottni þeirra fórner, í eydemorku Sinai.

## 8. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mo=sen, og sagde,

2. Tak Aaron og hans sonu med honum, og þeirra klæde og smurn=ingar oleum, og einn uxa til syn=da offurs, tvo hrúta, og eina korf med ósyru braudi,

3. Og samansafna ollum al=múganum utann fyrer samkundu=tialldbúdar dyrum.

4. Moses gerde sem Drottinn baud honum, og samansafnade oll=um almúganum fyrer samkundu=búdardyrunum,

5. Og sagde til þeirra: Þetta er þad sem Drottinn hefir boded ad gera.

6. Og hann tók Aaron og hans sonu, og þvode þá í vatne,

7. Og færde hann í líffyrtelenn, og umgyrdte hann med einu bellte, og færde hann í silke mottulenn, og let yfer hann líffyrtelenn, og gyrd=te hann utann yfer líffyrtelinn,

8. Og hann heingde briostskiolld=enn uppá hann, og í briostskylld=enum lióseð og rettenn,

9. Og hann sette hattenn uppá hans hofud, og sette þá gullspaung af þeirre helgu koronu á hattenn, ofann á hans enne, sem Drottinn hafdt boded Mose.

10. Og Moses tók smurningar oleum, og smurde tialldbúdena, og allt þad sem þar var inne og vígde þad.

11. Og hann stockte sio reisur á alltared þar af, og smurde alltared, og allt þad sem þar til heyrde, laug=arkered med sínum fæte, ad þad være vigt.

12. Og hann hellte smurningar oleo yfer Aarons hofud, og smurde hann, so ad hann være vígdur,

13. Og leidde Aarons syne þar ad, og færde þá í línkyrtla, og gyrd=te þá med bellte, og sette húfurnar uppá þá, sem Drottinn hafde bod=ed honum.

14. Og hann let leida einn uxa framm, til synda=offurs, og Aaron og hans syner logdu sínar hendur yfer hans hofud,

15. Og so var honum slátrad. Og Moses tók af blódenu og strauk þvi um alltaris hornenn, rett um=kring med sínum singre, og hrein=sade alltarid. Og hann hellte bló=denu nidur hiá alltarenu, hiá þess fæte, og vígde þad til forlíkunar.

16. Og hann tók allt þad sem feitt var af innislunum, lifrarne=tiuna, og þau tvo nyrunn, med nír=na mornum, og upptendrade þad á alltarenu.

17. Enn uxann med hans húd, kiote og myke, brennde hann med ellde fyrer utann herbúdernar, so sem Drottinn hafde boded honum.

18. Og hann leidde einn hrút framm til brenneoffurs, og Aaron

og hans syner løgdu sínar hendur yfer hans høfud,

10. Og so var hønum slátrad, og Moses støckte blodenu umkring á alltared,

20. Og hió hrútenn í stycke, og upptendrade høfuded, styckenn og kroppenn,

21. Enn hann þvode inniflenn og fæturnar í vatne, og upptendrade so allann hrútenn á alltarenu. Pad var eitt brenneoffur, til sætlegs ilms, og einn elldur fyrer Drottni, sem Drottinn hafde bodeð hønum.

22. Hann leidde og þann annann fyllingar-offurs hrútenn framm. Og Aaron med sínum sonum løgdu hendur yfer hans høfud,

23. Og so var hønum slátrad. Og Moses tók af hans blode, og smurde á Aarons hægra eyrna snepel, og á hans hægra þumalfingur, og á hans hægra þumaltá.

24. Og hann leidde Aarons syne framm, og smurde af blódenu, á þeirra hægra eirna snepil, og á þeirra hægra þumal-fingur, og á þeirra hægra þumal-tá, og dreifde blódenu rett umkring á alltarenu.

25. Og hann tók það ed feita, og rófuna, og allann mørenn af innislunum, og lifrarnetiuna, og bæde nyrunn, og þad feita þar med filgde, og þann hægra bogenn.

26. Þar til tók hann og af kørfenne, þess ósyrda brauds, fyrer Drottni, ósyrda køku eina, og eina køku af þvi braude, sem meingad var med oleo, og einn leif, og lagde þetta ofann á þad feita, og ofann á þann hægra bogenn,

27. Og feck Aarone og hans sonum þad alltsamann í hendur, og veifade þvi til veifunar fyrer Drottne.

28. So tók hann þad alltsaman aptur af þeirra høndum, og uppkveikte þad á alltarenu, ofann uppá brennefornenne, þvi þad er eitt fyllingar-offur, til eins sæts ilms, einn elldur fyrer Drottni.

29. Og Moses tók bringuna, og veifade veifingu, fyrer Drottni, af fyllingar-offurs hrútnum, og þad feck Moses í sinn part, sem Drottinn hafde boded hønum.

30. Og Moses tók af smurningar oleo, og af blodenu af alltarenu, og støckte á Aaron og á hans klæde, á hans sonu og þeirra klæde,

31. Og vígde so Aaron og hans klæde, hans syne, og þeirra klæde med hønum, og sagde til Aarons og hans sona, matgered kiøted fyrer utann samkundu-tialldbúdardyrunum, og eted þad í sama stad, med þvi braude, sem er í fylle-offursins kørf, sem mer er bisalad og sagt, ad Aaron og hans syner skulu eta þad.

32. Enn hvad sem leifest af kiøtenu og braudenu, þad skulud þer uppbrenna med ellde.

33. Og í siø daga skulud þer eigi ganga út um samkundu-búdardyrnar, fyrr enn ydar fylle-offurs dagar eru fullkomner,

34. Þviad ydar hendur eru fylltar í siø daga, so sem nú er sked uppá þennann dag. Drottinn bifalade so ad gera, uppá þad, ad þer skulud vera forlíkter,

35. Og þer skulud vera siø daga fyrer samkundu-búdardyrunum, dag og nótt, og skulud Drottins vardhallds gæta, so þer deyed eigi, þvi so er þad mer boded.

36. Og Aaron og hans syner gerdu allt þad sem Drottinn hafde boded fyrer Mosen.

## 9. Capitule.

1. Og á þeim áttunda deige kalla-

de Moses Aaron og hans syne, og þá ellstu af Israel,

2. Og sagde til Aarons: tak þer einn ungann kálf, til syndaoffurs, og einn hrút, til brenneoffurs, hvernveggia án lyta, og leid þá fyrer Drottinn.

3. Og tala vid Israels børn, seigiande: taked einn kiarnhafur til synda=offurs, og einn kálf, og einn saud, hvernveggia veturgamlan, lytalaust, til brenneoffurs,

4. Og einn uxa, og einn hrút, til þackaroffurs, so ver kunnum ad fórnfæra fyrer Drottni, og eitt matoffur blandad med oleo, þvi Drottinn mun í dag byrtast fyrer ydur.

5. Og þeir tóku þad sem Moses hafde boded, utan fyrer samkundu=tialldbúdardyrunum. Og allur søfnudurenn geck framm, og stod fyrer Drottni.

6. Þá sagde Moses: þetta er þad sem Drottinn hefir boded ad gera, og so skal dyrd Drottins byrtast ydur.

7. Og Moses sagde til Aarons: gack framm til alltaresins, og fær þína syndafórn, og so þína brennefórn og ger eina forlíkun fyrer þig, og fyrer folked, og fær sídan folksins forner, og forlíka og so fyrer þá, so sem Drottinn hefir boded.

8. Og Aaron geck til alltaresins, og sæfde kálfenn til síns synda=offurs.

9. Og hans syner báru blóded til hans, og hann drap sínum fingre í blóded, og reid þvi á horn alltaresins, og hellte blódenu nidur hiá alltaresins fæte.

10. Enn feitena, og nyrunn, og lifrar netiuna til syndaoffurs, upptendrade hann á alltarenu, sem Drottinn baud Mose,

11. Enn kiøted og skinned brennde hann med ellde, fyrer utann herbúdernar.

12. Sídann slátrade hann brennefornenne. Og Aarons syner báru blóded til hans, og hann støckte þvi rett umkring alltared.

13. Og þeir báru brennefórnena til hans høggna í stycke, og høfuded. Og hann upptendrade þad á alltarenu,

14. Og hann þvode inniflenn og og fæturnar, og brennde þad ofann á brenneoffred á alltarenu.

15. Sídann bar hann folksins fórn framm, og tók kiarnhafurenn, sem var folksins synda=offur, og slátrade hønum,

16. Og gerde eitt synda=offur þar af, so sem hitt ádur.

17. Og hann bar brenneoffred framm, og gerde vid þad sem skickad var, og hann bar matoffred framm, og tók sína hønd fulla, og uptendrade þad á alltarenu, ad auk morgunsins brenneoffurs.

18. Sídann slátrade hann uxanum og hrútnum til folksins þackletis offurs, og hans syner báru bloded til hans, þvi støckte hann rett umkring á alltared,

19. Enn þad feita af uxanum og hrútnum, rofuna og þad feita á inniflunum, og nyrunn og lifrarnetiuna,

20. Allt þad feita lagde hann á bringuna, og uppkveikte þad feita á alltarenu.

21. Enn bringunne og þeim hægra bognum veifade Aaron til veifunar fyrer Drottni, líka sem Drottinn hafde boded Mose.

22. Og Aaron upplyfte sínne hende til folksins, og blessade þad, og geck so ofann, þá hann hafde gert syndaoffred, brenneoffred, og þackaroffred.

23. Og Moses og Aaron gengu inn í samkundu=tialldbúdena, og þá þeir gengu út aptur, blessudu

þeir folked. Þá openberade sig dyrd Drottins fyrer øllu fólke,

24. Þvi elldurenn kom frá Drottni, og uppbrennde brenne-fórnena, og þad feita á alltarenu, enn sem allur lydurenn sá þad, vard hann miøg gladur, og fell framm á sínar ásionur.

## 10. Capitule.

1. Enn Arons syner, Nadab og Abihu, tóku hver sitt glodarker, og løgdu elld þar í, og løgdu reykelse þar á, og báru annarlegann elld fyrer Drottinn, hvad hann hafde eigi boded þeim.

2. Þá kom þar einn elldur frá Drottni og brennde þá, so þeir dóu fyrer Drottne.

3. Þá sagde Moses til Aaron, þetta er nú þad sem Drottin hefir sagt, eg mun heilagur verda á þeim sem nálgast til mín, og eg vil vera dyrdarlegur fyrer øllu folke. Og Aaron þagde,

4. Enn Moses kallade Misael og Elzaphan, sem voru syner Usiel, Arons fødur brodurs, og hann sagde til þeirra, ganged framm og bered ydar brædur burt af helgedomenum, út fyrer herbúdernar.

5. Og þeir fóru til, og báru þá útfyrer herbúdernar, íklædda þeirra línkyrtlum, sem Moses hafde sagt.

6. Þá sagde Moses til Arons og hans sona Eleazar og Ithamar, þid skulud eige ber gera ydar høfud, eige helldur í sundur rífa ydar klæde, so þid deyed eigi, og ad þar kome eigi reide yfer allann søfnudenn, láted ydar brædur af øllu Israelis húse gráta yfer þessum bruna, sem Drottinn hefir gert.

7. Enn þid skulud eigi ganga út af samkunde tialldbúrdar dyrum, so þid skulud eige deya, þviad Drottins smurningar oleum er á ydur. Og þeir gerdu sem Moses baud.

8. Enn Drottinn talade vid Aaron, og sagde,

9. Þú og þíner syner med þer skulu eigi drecka vín, eda nockurn annann áfeingann dryck, þá þer gangid í samkundu-tialldbúdena, so ad þer skulud eigi deya, þad skal vera einn eylífur rettur, hiá øllum ydrum epterkomendum.

10. So þer meiged gera grein á millum þess sem er heilagt eda óheilagt, og í millum þess hreina og óhreina.

11. Og ad þer meiged kenna Israelis børnum allar þær skickaner, sem Drottinn hefir sagt til ydar fyrer Mosen.

12. Og Moses talade vid Aaron, og vid hans sonu Eleazar og Ithamar sem epter voru ordner: taked þad matoffur, sem leifdest af Herrans offre, og eted þad ósyrt vid alltared, þvi þad er þad allra-helgasta.

13. Enn þer skulud eta þad, í einum helgum stad, þvi þad er þinn rettur, og þinna sona rettur, af Herrans offre, þvi so er mer boded.

14. Enn veifunarbringuna, og upplyptingar bógenn skalltu og þíner syner, og þínar dætur med þer, eta í einum hreinum stad, þviad þer og þínum børnum er soddann rettur gefenn, af Israels barna þacklætis offre,

15 Þvi upplyptingar bógurenn, og veifunar bringann til feitleikans-offurs skal berast framm, so þvi se veifad til einnrar veifunar, fyrer Drottni, þvi heyrer þad þer, og þínum børnum til, med eylífum rettindum, so sem Drottinn hefir boded.

16. Og Moses leitade epter haf-

renum, til synda-offursins, og fann hann upp brenndann, og hann vard reidur uppá Arons syne, Eleasar og Ithamar, þeir sem þá epter lifdu, og sagde:

17. Þvi hafed þid eigi eted synda-offred, á einum helgum stad, þvi þad er þad allrahelgasta. Og hann hefir gefed ydur þad, ad þer skulud bera almúgans synder, so þer kynnud ad forlika þá fyrer Drottni.

18. Siáed hans blód er eigi komed inn í helgedómenn, þer skylldud hafa eted hann í helgedomenum, so sem mer er bífalad.

19. Enn Aaron sagde til Mosen, siá! ídag hafa þeir offrad sínu synda-offre, og sínu brenneoffre, fyrer Drottni, enn mig hefir hendt sem þú ser, og hefde eg etid af synda-offrenu í dag, munde þad hafa þocknast fyrer Drottni?

20. Enn þá Moses þad heyrde, þá let hann ser þad lynda.

## 11. Capitule.

1. Og Drottinn mællte vid Mosen og Aaron, og sagde til þeirra,

2. Taled vid Israels børn og segied: þesse eru þau dyr sem þer skulud eta á medal allra dyra á jørdunne.

3. Allt þad sem er twíklaufad og jórtrar á medal dyranna, þad skulud þer eta.

4. Enn hvad sem jórtar, og hefir hóf eigi twíkleyfdann, sem er ulfalldenn, þad er ydur óhreint, og eigi skulud þer eta þad.

5. Caninur tyggia ad sønnu jórtur, enn hafa þo eigi klaufer, þar fyrer eru þær óhreinar.

6. Harenn jórtrar, enn hann hefir þo eigi klaufer, og þvi er hann ydur óhreinn.

7. Og svíned hefir klaufernar, enn þad jórtrar eigi, og þvi skal þad vera ydur óhreint.

8. Þer skulud eigi eta af þeirra kiøte, og ei helldur snerta vid þeirra hræ, þvi þau eru ydur óhrein.

9. Enn þetta skulud þer eta, af þvi sem er í vatnenu, allt þad sem hefir sund-ugga og hreistur, í vatnenu, í siónum, og í fliotande vøtnum, þad skulud þer eta.

10. Enn allt þad sem eigi hefir sundugga og hreistur, í siónum og vøtnunum, á medal alls sem sig hrærer í vatnenu, og þad sem lifer í vatnenu,

11. Þad skal vera ydur ein andstyggd, so þer skulud eigi eta af þeirra kiøte, og þer skulud fordast þeirra hræ,

12. Þvi allt þad sem eigi hefir ugga og hreistur í vatnenu, þad skulud þer fordast.

13. Enn á medal fuglanna skulud þer þessa fordast, so þer þá eigi eted, Aurnena, Haukenn, Siáfar-Aurnena,

14. Gióðenn og Glentuna, og hvád sem er af hans kine,

15. Alla Hrafná med sinne Tegund,

16. Strutzfuglenn, Náttugluna, Gaukenn, Válenn, med sinne Tegund,

17. Steinugluna, Alftena, Hornugluna.

18. Flædarmúsena, Músarbródurenn, Skadann,

19. Storkinn, og Hegrann med sinne tegund, veidehoppuna og svøluna.

20. Og allt þad sem hrærest á medal fuglanna, og skrídur á fiórum fótum, þad skal vera svívirdulegt fyrer ydur.

21. Þo skulud þer þetta eta af þeim fuglum sem hræra sig, og ganga á fiórum fónum, og hoppa eigi á jørdenne med fótum,

22. Af þeim sømu meiged þer

eta, sem er Arbe med sinne tegund, og Selám med sinne tegund, og Hargol med sinne tegund, og Hagab med hennar tegund.

23. Enn allt annad, þad sem hefir fiórar fætur á medal fuglanna, þad skal ydur vera svívirdulegt, og þer skulud hallda þad óhreint.

24. Og hver sem snerter vid soddan eitt hræ, hann skal vera óhreinn til kvøllds.

25. Og ef einnhver ber nockud af þeirra hræe, hann skal þvo sín klæde og vera óhreinn til kvøllds.

26. Þar fyrer skulu øll dyr sem hafa klaufer, og eigi eru tvíklaufud, og eigi jórtra, vera óhrein fyrer ydur. Og hver sem snerter þau, hann skal vera óhreinn.

27. Og allt þad sem gengur á sínum hrømmum, á medal þeirra dyra, sem ganga á fiórum fótum, skal vera ydur óhreint, og hver sem snerter þeirra hræ, hann skal vera óhreinn til kvøllds.

28. Og hver hann ber þeirra hræ, hann skal þvo sín klæde, og vera óhreinn til kvøllds, þvi sodann er ydur óhreint.

29. Þesse skulu og vera ydur óhrein á medal dyranna, sem skrída á jørdunne, sem er, Hreisekøtturenn, Músen, Paddann, hvert med sinne tegund,

30. Pindsvín, Molkormurenn, Øglarenn, Egellenn, og Molldvarpann.

31. Þetta er ydur óhreint, á medal alls þess sem skrídur, hver sem snerter vid þeirra hræ, hann skal vera óhreinn til kvøllds,

32. Og allt þad sem eitt sodan daudt hræ fellur yfer, þá er þad óhreint, hvert helldur þad er treker, klæde, skinn, eda secker, og øll ønnur verkfære, sem til nockurs gagns eru høfd, skal leggiast í vatn, og er saurugt til kvøllds, þar epter er þad hreint.

33. Ef soddann eitt hræ fellur í nockurs háttar leirker, þá er þad allt óhreint, sem í þvi er, og skal í sundurslást.

34. Kome sodan vatn í nockurn mat, þann etenn verdur, þá er hann óhreinn, og allur sá dryckur sem druckenn verdur, af hverskonar soddan kere, er óhreinn.

35. Og allt þad sem soddann hræ fellur yfer, verdur óhreint, se þad ofn eda ketell, þá skal þad í sundurbrióta, þvi þad er óhreint, og skal vera ydur óhreint.

36. Enn þo eru brunnar, uppsprettur, og læker hreiner. Enn hver sem snerter þeirra hræ, hann er óhreinn.

37. Og ef nockud sodann hræ fellur uppá nockud kornsæde, sem sád er, þá er þad þo hreint,

38. Enn ef Menn ausa vatne yfer sáded, og falle sídann nockud soddann hræ þar yfer, þá er þad ydur óhreint.

39. Þá nockurshattar dyr deyr, þad sem ydur er ætt, og hver sem kemur vid þess hræ, hann er óhreinn til kvøllds.

40. Enn hver sem etur af soddann hræi, hann skal þvo sín klæde, og er óhreinn til kvøllds, líka og hver sem ber soddann hræ, hann skal þvo sín klæde, og vera óhreinn til kvøllds.

41. Þad sem skrídur framm á jørdenne, þad skal vera ydur svívirdulegt, og Menn skulu eigi eta þad,

42. Og allt þad sem skrídur á kvidnum, og allt þad sem gengur á fiórum edur fleyrum fótum, á medal allra þeirra dyra sem skrída framm á jørdunne, skulud þer eigi eta, þvi þad skal vera ydur svívirdulegt.

43. Gered eigi ydar sáler vidurstyggelegar, og gered ydur eigi óhreina á þeim, so ad þer saurged ydur.

44. Þvi eg em Drottinn ydar Gud, þar fyrer skulud þer helga ydur, so þer seud heilager, þviad eg em heilagur. Og þer skulud eigi gera ydar sáler óhreinar, á nockru skrídande dyre, sem skrídur á jørdunne.

45. Þvi eg em Drottinn, sem útleidde ydur af Egyptalande, til þess, ad eg se ydar Gud, þar fyrer skulud þer vera heilager, þviad eg em heilagur.

46. Þesse eru løgenn, um dyr og fugla, og allshåttud kvikende sem skreidast í vatnenu, og so um allrahanda kvikende, sem skrída á jørdunne,

47. So þer kunned ad gera grein á millum þess, sem er hreint og óhreint, og hver kvikende æt eru, og hver ad seuóæt.

## 12. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala vid Israels børn, seigande: nær ein kvinna fær getnad, og fæder sveinbarn, þá skal hún vera sjø daga óhrein, so leinge sem hún er í sínum siúkdome.

3. Og á áttunda deige skal umskera holld hans yferhúdar.

4. Og hún skal vera heima í þriá og þriátíe daga, í blóde sinnar hreinsunar. Hún skal eigi koma vid nockud þad sem heilagt er, og eigi skal hún koma til helgedoms síns, fyrr enn hennar hreinsunardagar eru endader.

5. Enn ef hún fæder eitt meybarn, þá skal hún vera óhrein tvær vikur, so leinge sem hún er í sínum siúkdome, og hún skal vera heima í sínu húse sex og sextíu daga, í blóde hennar hreinsunar.

6. Og þá hennar hreinsunar dagar eru úte fyrer sen, eda fyrer dottur, þá skal hún bera framm eitt veturgamallt lamb, til brennefórnar, og eina unga dúfu, eda eina turtildúfu til syndaoffurs, til prestsins, fyrer samkundu-tialldbúdar dyrnar.

7. Hann skal offra því fyrer Drottne, og forlíka hana, og so er hún hrein af sínu blódláte. Þetta er løgmál um þá konu sem fæder son edur dottur.

8. Enn eige hún eigi til lambid, þá take hún ser tvær turtildúfur, eda tvær ungar dúfur, adra til brenneoffurs, enn adra til syndaoffurs, so skal presturenn forlíka hana, so ad hún verde hrein.

## 13. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og Aaron, og sagde:

2. Þá nockur madur fær bólgu í húd holldз síns, eda kláda, eda hvítnar hans holld, so sem þad villde verda spitelska, á húd hans holldз, þá skal leida þann Mann fyrer prestenn Aaron, eda fyrer einn af hans sonum á medal prestanna.

3. Og þá presturenn ser teikned á hørunde hans holldз, ad háred hvítnar, og ad þad er diúpara til ad siá, á þeim stad, enn ønnur húd á hans hollde, þá er þad vissulega líkþrá, þar fyrer skal presturenn skoda hann, og dæma hann óhreinann.

4. Enn se þar nockur hvítur fleckur á hørunde hans holldз, og er þo eige diúpara til ad siá, enn hans annad skinn á holldenu, og háred hvítnar eigi, þá skal presturenn byrgia hann inne í sjø daga,

5. Og skoda hann á þeim sjøunda deige. Se þad so, ad teikned

blífur samt sem fyrre syndest, og þad hefir eigi framar inn=eted sig á hørundenu,

6. Þá skal presturenn byrgia hann inne í adra siø daga. Og þá hann skodar hann enn í annann tíma, á þeim siøunda deige, og formerker hann, ad sleckurenn er í burt horfenn, og hefir eigi vídar inneted sig á hørundenu, þá skal hann dæma hann hreinann vera, þvi þad er kláde, og hann skal þvo sín klæde, og þá er hann hreinn.

7. Og þegar sá kláde etur sig vídara út á húdenne, sídann hann var skodadur af prestenum, og dæmdur hreinn; enn er nú í annanu tíma skodadur af prestenum, og ef presturenn ser þad, ad kládenn hefir eted sig vídar inn í hørunded,

8. Þá skal hann dæma hann óhreinann, þvi þad er vissulega spitelska.

9. Ef nockurt spitelskt teikn er á Manne, þá skal leida hann til prestsins.

10. Og nær hann ser og formerker, ad þar er hvítt upp hlauped á skinnenu, og háred er hvítnad, og þar er hraust kiøt í sárenu,

11. Þá er þad vissulega ein gømul líkþrá í hørunde hans hollds. Þar fyrer skal presturenn dæma hann óhreinann, og eigi byrgia hann inne, þvi hann er allareidu óhreinn.

12. Enn þegar spitelskann brytst út í hørundenu, og hylur allt hørunded, frá høfdenu allt til fótanna, allt þad sem presturenn má siá med augunum,

13. Ser þá presturenn og finnur, ad spitelskann hefir huled allt hans holld, þá skal hann dæma hann hreinann, þviad þad er orded alltsaman hvítt á hønum þvi hann er hreinn.

14. Enn er þad raudt holld bólged, á þeim deige sem hann er skodadur, þá er hann óhreinn,

15. Og þá presturenn ser þad hrausta kviku=holld, þá skal hann dæma hann óhreinann, þviad hann er óhreinn, og þad er víst spitelska.

16. Enn ef þad kviku=holld umbreitest og verdur hvítt,

17. Þá skal hann koma til prestsins, og þá pesturenn skodar og formerker, ad teikned er orded hvítt, þá skal hann dæma hann hreinann, þvi hann er hreinn.

18. Vare þar kyle á nockurs Manns hollds húd, og læknast aptur,

19. Og þar kemur upp sídan nockud hvítt í þeim sama stad, eda verde þar hvítraudur fleckur, hann skal skodast af prestenum,

20. Siáe þá presturenn, ad þad er diúpara ad siá, enn hans annad hørund, og ad háred er orded hvítt, þá skal hann dæma hann óhreinann, þviad þad er eitt víst teikn, ad spitelska er ordenn af kylenu.

21. Enn siáe presturenn, og finne, ad háred er eigi hvítt, og ad þad er eigi diúpara enn annad hans hørund, og er horfed, þá skal hann byrgia hann inne í siø daga.

22. Og ef þad etur sig þá vídara út í hørundenu, þá skal hann dæma hann óhreinann, þvi þad er vissulega spitelsku teikn.

23. Enn blífe sá hvítraude fleckur so samt, og etur eigi vídara um sig, þá er þad øred af kylenu, og presturenn skal dæma hann hreinann.

24. Þegar nockur brenner sig á elldе á skinnenu, og þad holld, er brann, hefir raudt eda hvítt ør,

25. Og presturenn skodar hann, og formerker, ad háred er orded hvítt á þeim stad, sem brann, og er

diúpara til ad siá, helldur enn ann-
ad hørund, þá er þar sannlega ord-
enn ein spitelska af þeim bruna, þar
fyrer skal presturinn dæma hann
óhreinann, þvi þad er spitelsk teikn.
26. Enn siáe presturenn og finne,
ad háred á þeim brennda stad hefir
eigi umskipst í hvítt, og er eigi
diupara enn annad hørund, og er
þar med í burt horfid, þá skal hann
byrgia hann inne í siø daga,
27. Og þann siøunda dag skal
hann skoda hann, hafe þad þá vída-
ra útstreckt sig á hans hørunde, þá
skal hann úrskurda hann óhrein-
ann, þvi þad er spitelská.
28. Enn hafe þad vered kirrt á
þeim brunastad, og eigi vídara etid
sig inn á hørundinu, og er þarmed
horfed, þá er þad ør af brunanum,
og presturenn skal dæma hann
hreinann, þvi þad er eitt ør af þeim
bruna.
29. Verde nockur madur eda
kvinna skurfottur á høfdenu, eda í
skeggenu,
30. Og presturenn skodar teikn-
ed, og finnur, ad sá stadur er diúpa-
re helldur enn annad skinn til ad
siá, og háred á sama stad er gult og
þunnt, þá skal hann dæma hann
óhreinann, þvi þad er spitelsk skur-
fa á høfdenu eda í skeggenu.
31. Enn siáe presturenn, ad skurf-
ann er eigi diupare til ad siá enn
skinned, og háred er eigi døckt, þá
skal byrgia hann inne í siø daga.
32. Og þá hann skodar þad á
enum siøunda deige, og formerker,
ad sama skurfa hefir eigi vídar inn
eted sig, og þar eru eingenn gul
hár, og skurfann er eigi diupare til
ad siá enn annad hørund,
33. Þá skal hann raka ser, þó
hann rake eigi skurfuna. Og prest-
urenn skal lykia hann inne aptur í
siø daga,
34. Og þá hann skodar hann á
þann siøunda dag, og formerker ad
skurfann hefir eigi vídar uteted sig
á skinnenu, og ad þad er eigi diúpa-
ra til ad siá, enn hin ønnur húd-
enn, þá skal presturenn seigia hann
hreinann, og hann skal þvo sín klæ-
de, þvi hann er hreinn.
35. Enn se þad so, ad skurfann
ete sig vídara út á hørundenu, síd-
ann hann er dæmdur hreinn, og
presturenn siáe þad, og formerker,
ad skurfann hefir so vídara inn
eted sig á hørundenu,
36. Þá skal hann eigi meir leita
þar epter hvert háred se gult, þvi
hann er óhreinn.
37. Enn se skurfann kirr fyrer
hans augum, og þar er døckt hár
uppá vaxed, þá er skurfann læknud,
og hann er hreinn, og þar fyrer skal
presturenn seigia hann hreinann.
38. Nær einn madur eda kvin-
na hefir nockurn hvítraudann fleck
á húd síns hollds,
39. Og presturenn skodar þad sa-
ma, ad sá hvíte fleckur í burt hverf-
ur, þá er ein hvít skurfa uppvaxenn
í skinnenu, og hann er hreinn.
40. Enn nær háred fellur af nock-
urs Manns høfde, so hann verdur
skollottur, hann er hreinn.
41. Falle þad hønum framann
af høfdenu, og þad verdur glæroted,
þá er hann hreinn.
42. Enn vaxe þar á þeim ber-
skollotta, eda hvar hann er rotenn,
eitt hvítt, eda raudt teikn, þá er
þar spitelska upprunnenn á þvi
hárlausa, eda á þvi skollotta høfde.
43. Þar fyrer skal presturenn
skoda hann, og þá hann formerker,
ad hvítt, eda raudt teikn er upp-
vagsed á þvi glærotna, eda skoll-
otta høfde, og þad er ad siá so sem
líkþrá á skinnenu, þá er hann spit-
elskur og óhreinn,

44. Og presturenn skal seigia hann óhreinann fyrer saker þvilíks merkis, sem er á hans høfde.

45. Enn hver sem þar er nú líkþrár, hans klæde skulu vera sundurrifenn, og hans høfud bert, enn varernar huldar, og skal kallast med øllu óhreinn.

46. Og so leinge sem þad teikn er á hønum, skal haun vera óhreinn, hann skal búa alleina, og hans heimele skal vera fyrer utann herbúdernar.

47. Se þar nockud spitelskt teikn á nockoru klæde, hvert helldur þad er úr ullu, eda líne.

48. A uppestødunne, eda fyrervafenu, hvert helldur þad er af líne, eda af ullu, eda á skinne, eda á serhveriu þvi sem gert er af skinne.

49. Og þá þad teikn er bleikt eda raudt á klædenu, eda skinnenu, eda á uppestødunne, eda á fyrervafenu, eda á nockorum hlut sem gerdur er af skinne, þad er víst eitt spitelskt teikn, þar fyrer skal presturenn skoda þad.

50. Og þá hann ser teikned, þá skal haun lykia þad inne í siø daga.

51. Siáe hann þá á hinum siøunda deige, ad teikned hefir vídara eted sig inn á klædenu, á þrædenum, eda á fyreruafenu, á skinnenu, eda á nockru þvi sem gert er af skinne, þá er þad eitt etande spitelsku-teikn, og er óhreint.

52. Og Madur skal brenna þad sama klæde, eda þrádenn, eda fyrervafed, hvert þad er helldur af ullu eda af líne, eda hvada hellst verknadur þad er úr skinne, á hveru ad soddan teikn er, þvi þad er inneted spitelsku teikn, og skal uppbrennast í elldе.

53. Enn siáe presturenn ad teikned hefir eigi eted sig vídara inn á klædenu, eda á þrædenum, eda á fyrervafenu, eda á øllu þvi sem af skinne er gert,

54. Þá skal hann skipa ad þvo þad, sem teikned er á, og lykiá þad inne í adra siø daga.

55. Siáe presturenn epter á, þá teikned er þveiged, ad þad hefir eigi ummbreitst, fyrer hans augum, hefir og eigi vídara inneted sig, þá er þad óhreint, og skal brennast í ellde þvi þad hefir diúpt inneted sig, og gert þad kládugt.

56. Enn nær presturenn ser, ad teikned er horfed, epter þad, þad er þveiged, þá skal han rífa þad af klædenu, af skinnenu, af þrædenum, eda fyrervafenu,

57. Enn synest þad nockurstadar enn þá framar á klædenu, og þrædenum, á fyrervafenu, edur á allshattudu skinnverke, þá er þad fleckur, og skal brennast í ellde, þar soddan teikn er á.

58. Enn se þad teikn genged af klædenu, af þrædenum, eda af fyrervafenu, eda af øllu þvi sem gert er af skiune, sídann þad var þveiged, þá skal þad þvost aptur, og so er þad hreint.

59. Þetta er løgmáled um spitelskt teikn, á klædunum, hvert helldur þau eru af ullu, eda líne, á þrædenum, á fyretvafenu, og á øllu þvi sem gert er af skinne, til ad seigia þad hreint eda óhreint.

## 14. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen og sagde:

2. Þetta er løgmáled yfer þeim líkþráa, þá hann skal hreinsast. Hann skal koma til prestsins,

3. Og presturenn skal ganga út af herbudunum, og skoda hvernenn þad spitelsku teikn er læknad á þeim líkþráa.

4. Og hann skal bioda þeim sem

hreinsast skal, ad taka tvo lifande fugla, sem hreiner eru, og Cedrus tre, og purpura-ull, og ysop.

5. Og hann skal bioda ad slátra ødrum fuglenum, í einu leirkere, hiá einu rennande vatne.

6. Og hann skal taka þann lifanda fugl, med Cedrus trenu, purpura ullu, og ysopo, og drepa þvi í blód þess sæfda fugls, hiá þvi rennanda vatne,

7. Og støckva siøsinnum yser þann, sem hreinsast skal af líkþránne, og hreinsa hann so, og láta þann lifanda fugl sliúga lausann í burt á mørkenne.

8. Enn sá sem hreinsadur er, skal þvo sín klæde, og raka allt sitt hár af, og lauga sig í vatni, so er hann hreinn. Sídann gange hann í herbúdernar, þo skal hann vera fyrer utann sína tialldbúd í siø daga.

9. Og þann siøunda dag skal hann raka allt sitt hár af sínu høsde, skegge og augnabrám, so ad allt hans hár se afrakad. Og hann skal þvo sín klæde, og lauga sinn líkama í vatni, so er hann hreinn.

10. Og á þeim áttunda deige skal hann taka tvø lømb án lyta, og veturgumlann saud án lyta, og þriá tíunda parta hveitimiøls til matoffurs, blandad med oleo, og einn log af oleo.

11. Sídann skal presturenn skicka þann sem hreinn er gerdur, og þessa hlute, framm fyrer Drottinn, utann fyrer samkundu-tialldbúdardyrunum.

12. Og hann skal taka þad annad lambid, og offra þvi til skulldoffurs, med þeim log af vidsmiøre, og skal veifa þvi fyrer Drottni,

13. Og slátra sídann lambenu, þar sem vant er ad slátra syndaoffrenu, og brenneförnenne, sem er, á þeim helgum stad. Þviad líka sem syndaoffred heyrer prestenum til, so er og líka skulld-offred; þvi þad er þad allra-helgasta.

14. Og presturenn skal taka af skulldoffursins blóde, og strióka þvi á þann hægra eyrna snepel, á þeim sem hreinn er ordenn, og á hans hægra þumal-fingur, á hans hægre þumaltá.

15. Þar epter skal hann taka vidsmiøred, af sama log, og láta þad í sína (þad er prestsins) vinstre hønd.

16. Og drepa sínum fingre af sinne hægre hende í oleum, sem hann hefir í sinne vinstre hendi, og støckva med sínum fingre siø sinnum af þvi vidsmiøre, fyrer Drottni.

17. Enn af þvi vidsmiøre sem hann hefir í sinne hende epter, skal hann strióka á hans hægra eyrnasnepel, sem er ordenn hreinn, og á hans hægra þumal-fingur, og á hans hægre þumaltá, ofann á skulldoffursins blód.

18. Enn þad sem af gengur af þvi vidsmiøre í hans hende, þad skal hann láta uppá hans høfud sem hreinn er ordenn, og sorlíka hann sem hreinn er ordenn fyrer Drottni.

19. Og hann skal gera syndaoffred, og sorlíka hann sem hreinn er ordenn af hans óhreinleika.

20. Og sídann skal hann slátra brenneförnenne, og skal offra henne á alltarid, med matoffrenu, og forlíka hann, og so er hann hrein.

21. Enn se hann fátækur, og gete eigi utvegad so miked med sinne hende, þá skal hann taka eitt lamb til eins skulldoffurs veisunar, og forlíka hann med, og einn tíunda part hveite-miøls, blandad med vidsmiøre, til matoffurs, og einn log oleum.

22. Og tvær turtildúfur, eda tvær ungar dúfur, sem hann kann ad útvega med sinne hende, ad ein

se til syndaoffurs, enn ønnur til brennefórnar,

23. Þetta skal hann bera til prestsins, fyrer Drottinn, utan fyrer samkundu = tialldbúdardyrunum, þann áttunda dag epter, sem hann er ordenn hreinn.

24. Þá skal presturenn taka lambed til skulldoffursins, og þann log oleum, og skal veifa þvi øllu fyrer Drottni.

25. Og skal slátra lambenu til skulldoffursins, taka af sama skulldoffursins blóde, og smyria á hans hægra eyrna snepil, sem er ordenn hreinn og á hans hægra þumalsingur, og á hans hægra þumal=tá.

26. Og hann skal láta af vidsmiøre í sína (þad er í prestsins) vinstre hønd.

27. Og støckva med sínum hægra handar singre af þvi oleo, sem er í hans vinstre hende, siø sinnum fyrer Drottni.

28. Enn hann skal støckva af þvi sem hann hefir epter í sinne hende, á hans hægre eyrna snepil, sem hreinn er ordenn, og á hans hægra þumalsingur, og á hans hægra þumaltá, ofaná skulldoffursins blód

29. Enn hvad sem þá epter er af oleo í hans hende, þad skal hann láta uppá hans høfud, sem hreinn er ordenn, til ad forlíka hann fyrer Drottni.

30. Sídan skal hann gera eitt syndaoffur, af annare turtildúfunne, eda dúfu unganum, so sem hans hønd kunne ad útvega.

31. Og eitt brenneoffur af þeim ødrum med matoffrenu, og presturenn skal forlíka hann fyrer Drottni, sem hreinn er ordenn.

32. Þetta skal vera løgmáled um þann líkþráa, sem eigi kann ad útvega med sinne hende, þad sem heyrer til hans hreinsunar.

33. Og Drottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde:

34. Þá þer komed inn í Canaans land, þad sem eg vil gefa ydur til eignar, og eg sende spitelskt teikn í nockurt hús, út í ydru eignar=lande,

35. Þá skal sá koma sem húsed á, og ávísa prestenum, og seigia: mer synest ad þar se komed spitelskt teikn inn í mitt hús.

36. Sídann skal presturen ábióda, ad þeir ride húsed, ádur enn presturenn kemur þar inn ad skoda teikned, so þad verde eigi alltsaman óhreint, sem í húsenu er; þvi nærst skal presturenn fara þar inn og skoda húsed.

37. Og þá hann skodar teikned, og formerker, ad þar eru gular, eda raudar holur á veggnum í húsenu, so ad þad er diúpara til ad siá enn veggurenn er annars,

38. Þá skal hann ganga út ad dyrum hússins, og byrgia húsed aptur í siø daga.

39. Og þá hann kemur aptur á þeim siøunda deige, og ser, ad teikned hefir vídara inneted sig á veggiunum í húsenu,

40. Þá skal hann skipa ad brióta þá steina út, sem teikned er á, og kasta þeim út ur stadnum, í einn óhreinann stad.

41. Sídann skulu Menn skafa húsed allt umkríng innann til, og kasta þvi kalke, sem af er skafed, út úr stadnum, í einn óhreinann stad,

42. Og taka adra steina, og setia aptur í stadenn, og so kalka húsed aptur med ødru kalke.

43. Enn ef sama teikn kemur aptur, og útbrytst í húsenu, epter þad Mann hefir nidurbroted steinana, og so límkastad húsed ad nyu,

44. Þá skal presturenn fara inn. Og þá hann ser, ad þad teikned hef=

ir vídara inneted sig, þá er þad sannlega ein fortærande spitelska í húsenu, og þad er óhreint.

45. Þar fyrer skal nidurbriota húsed, steina og tre, og allt þad kalk sem er í húsenu, og bera þad út úr stadnum, á einn óhreinann stad.

46. Og hver sem gengur inn í þad hús, so leinge sem þad er tillukt, sá sami er óhreinn til kvollds.

47. Enn hver sem liggur, edur etur þar inne, hann skal þvo sín klæde.

48. Enn ef presturenn, þá hann gengur þar inn, ser, ad teikned hefir eigi etid sig ut vídara í húsenu, epter þad sem húsed var límkastad, þá skal hann dæma þad hreint, þvi teikned er læknad.

49. So skal hann taka til syndaoffurs fyrer húsed tvo fugla, Cedrus tre, og purpura ull, og ysop,

50. Og skal slátra ødrum fuglenum í einu leirkere, hiá rennande vatne,

51. Og skal taka Cedrus tred, purpura ullena, og ysopid, og þann lifanda fuglenn, og drepa þessu í blod hins sæfda fuglsins, og í rennanda vatn, og støckva yfer húsed siøsinnum.

52. Og so skal hann hreinsa húsed med fuglsins blode, og med rennande vatne, med þeim lifanda fugle, Cedrus trenu, med ysopo, og med þeirre purpura ullu,

53. So skal hann láta þann lifanda fugl út af stadnum slinga friálslega, hvert hann vill í mørkena, og forlíka húsed, og so er þad hreint.

54. Þetta eru løgenn um allsháttud líkþrár teikn, og um skurfu,

55. Og um spitelsku á klædunum, og húsunum,

56. Og um bólgur og vos, og hvítroda ákomur,

57. So Menn meige vita, nær nockud er hreint edur óhreint, og þetta eru løgenn um spitelskuna.

## 15. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde,

2. Seiged Israels børnum, og taled so til þeirra. Nær þar rennur blódsall af nockurs Manns hollde, hann er óhreinn.

3. Enn þá er hann óhreinn af þeirre afrás, nær hans hollð væger, eda svellur þar af.

4. Allt þad sem hann liggur á, og allt þad hann situr á, verdur óhreint,

5. Og hver sem snerter hans sæng, hann skal þvo sín føt og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvollds.

6. Og hver sem setur sig nidur á nockud þad sem hann hefir ádur áseted, hann skal þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvollds.

7. Hver sem snerter hans holld, hann skal þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvollds.

8. Ef hann spyter uppá nockurn þann, sem er hreinn, þá skal sá þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvollds.

9. Og sá sødull sem hann rídur í, verdur óhreinn.

10. Og hver sem snerter nockud af þvi, sem hann hefir haft under ser, sá er óhreinn til kvollds, og hver sem ber nockud soddan, hann skal þvo sín klæde og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvollds.

11. Og hvern hann snerter ádur enn hann þvær ser, hann skal þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvollds.

12. Nær hann kemur vid nockud leirker, þá skal þad briotast í sund=

ur, enn treker skulu menn þvo í vatne.

13. Enn þá hann verdur hreinn af sinne blódrás, þá skal hann telia siø daga frá þvi hann er ordenn hreinn, og þvo sín klæde, og lauga sitt holld í rennanda vatne, so er hann hreinn.

14. Og á þeim áttunda deige skal hann taka tvær turtildúfur, eda tvær ungar dúfur, og bera þær framm fyrer Drottinn, fyrer samkundu-tialldbúdar-dyrnar, og gefa þær prestenum.

15. Og presturenn skal gera eitt syndaoffur af annare þeirra, enn brenne-offur af annare, og forlíka hann fyrer Drottni, vegna hans blodrásar.

16. Ef nockurs Manns sæde flytur frá hønum í svefne, hann skal bada allann sinn líkama í vatne, og vera óhreinn til kvøllds.

17. Og øll þau klæde, og allt þad skinn sem med þvílíku sæde er saurgad, skal hann þvo í vatne, og þad skal vera ohreint til kvøllds.

18. Ein kvinna, hiá hverre þvílíkur Madur liggur, þau skulu bada sig í vatne, og vera óhrein til kvøllds.

19. Nær ein kvinna hefir blódlát á sínum líkama, hún skal vera fyrer sig sialfa í siø daga,

20. Hvør hana snerter, hann er óhreinn til kvøllds.

21. Og allt þad hún liggur á, so leinge hún hefir sinn tíma, þad er óhreint, og þad sem hún situr á, verdur óhreint.

22. Og hver sem snerter hennar sæng, hann skal þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvøllds.

23. Og hver sem snerter nockud af þvi sem hún hefir setid á, hann skal þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvøllds.

24. Og þegar nockur samrecker henne, og hún fær sinn tíma hiá hønum, þá verdur hann óhreinn í siø daga, og sú sæng sem hann lá uppá, skal vera óhrein.

25. Þegar nockur kvinna hefir leinge sitt blódlát, eigi alleinasta epter veniulegum tíma, helldur og so yfer vanaleganu tíma, þá skal hún vera óhrein, so leinge sem hún hefir soddann blodrás, líka sem hún er þá hún er fyrer sig sialfa, so skal hún og her vera óhrein.

26. Hver sú sæng, sem hún liggur uppá, alla þá stund, sem hún hefir þad blódlát, skal vera líka sem sú sæng, þá hún er fyrer sig sialfa, og allt þad hún situr á, verdur óhreint, líka sem sá óhreinleike er, nær hún er fyrer sig sialfa.

27. Hver sem snerter nockud þar af, hann verdur óhreinn, og skal þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, og vera óhreinn til kvøllds.

28. Enn verde hún heil af sínu blodfalle, þá skal hún telia siø daga, sídan skal hún vera hrein.

29. Og á þeim áttunda deige skal hún taka tvær turtildúfur, eda tvær ungar dúfur, og bera til prestsins, fyrer samkundu-tialldbúdar-dyrnar.

30. Og presturenn skal gera eitt synda-offur af annare þeirra, enn eitt brenne-offur af annare, og skal forlíka hana fyrer Drottni, vegna hennar óhreininda rásar.

31. So skulud þer vidvara Israels børn, vid þeirra óhreinleika, ad þau deye eigi í sínum saurendum, nær þau saurga mína tialldbúd, sem er á medal ydar.

32. Þetta er løgmáled um þann sem hefir nockra afrás af sínum líkama, og um þann, sem sáded fellur frá í svefne, so hann verdur óhreinn þar af, og um hana sem hefir sitt blódfall,

33. Og hver sem hefir blódlát, hvert þad er helldur karlmadur, eda kvinna, og þá nockur samrecker þeirre sem ad er óhrein.

## 16. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen (epter þad þeir tveir Aarons syner voru dauder, þá þeir høfdu offrad fyrer Drottni).

2. Og sagde: seigdu Aaron þínum brodur, ad hann gange eigi jafnlega inn í þann innsta helgedom, fyrer innann fortiallded, fyrer nádarstolenn, sem er á ørkenne, so hann eigi deye, þvi eg vil byrtast í einu skye yfer nádarstolnum.

3. Enn med þessu skal hann ganga þar inn, med einn ungann uxa til syndaoffurs, og med einn hrút til brenneförnar.

4. Og skal færa sig í þann helga línkyrtel, og hafa eitt nidurklæde af líni um sinn líkama, og gyrda sig med einu línbellte, og hafa eitt høfudklæde af líne, þvi þad eru þau helgu klæde, og skal lauga sinn líkama í vatne, og færa sig so í þau.

5. Og so skal hann taka af almúga Israels barna tvo kiarnhafra til syndaoffurs, og einn hrút til brenneoffurs.

6. Og Aaron skal leida uxann framm, til síns syndaoffurs, og gera eina forlíkan fyrer sig og fyrer sitt hús.

7. Sídan skal hann taka þá tvo hafra, og leida þá framm fyrer Drottinn, fyrer samkundu-tialldbúdardyrnar.

8. Og skal leggia hlute á þá tvo hafra, einn hlut fyrer Drottinn, og þann annann fyrer þann hafur, sem laus skal látast.

9. Og hann skal fornfæra þann hafur, sem Drottins hlutur fell yfer, til syndaoffurs.

10. Enn sá hafurenn sem hluturenn fell yfer, ad hann skyllde laus látast, þann skal hann skicka lifande fyrer Drottinn, ad hann gere forlíkan fyrer hann, og sleppa so þeim lausa hafre út á eydemørk.

11. Og so skal hann sídann leida þann uxa framm, til síns syndaoffurs, og forlíka sig og sitt hús, og sæfa hann.

12. So skal hann taka eina pønnu, fullá af glæddum, af alltarenu þvi sem stendur fyrer Drottni, og einn bremming fullann af møldu reykelse, og bera þad inn yfer fortiallded.

13. Og kasta so reykelsenu á elldenn, fyrer Drottni, so ad reykurenn af reykelsenu hyle nádarstolenn, sem er uppá vitnisburdenum, ad hann eigi deye.

14. So skal hann taka blóded af uxanum, og støckva þvi med sínnm fingre framanverdt á móte nádarstólnum, sjø-sinnum skal hann so støckva med sínum fingre af blódenu fyrer nádarstólnum.

15. Sídan skal hann slátra hafrenum, sem er folksins synda-fórn, og bera hans blód inn yfer fortiallded, og skal gera med hans blóde líka sem hann gerde vid uxans blód, og dreifa þar med framanverdt á móti nádarstolnum.

16. Og so forlíka helgedomenn, af Israels barna óhreinleika, og af þeirra yfertrodslum í øllum þeirra syndum, so skal hann og gera vid samkundu-tialldbúdena, sem liggur medal þeirra, midt á þeirra óhreinleika.

17. Þar skal engenn Madur vera í samkundu-tialldbúdenne, á medann hann gengur þar inn, ad gera forlíkun í helgedomenum, þar til hann kemur út aptur, og so skal hann gera eina forlíkun fyrer sig,

og sitt hús, og fyrer allann almúg=
ann í Israel.

18. Og nær hann gengur út til
alltaresins, sem stendur fyrer Drott=
ni, þá skal hann gera eina forlíkun
þar fyrer, og skal taka uxans blód
og hafursins blód, og ríða því á
alltaresins horn umhverfis.

19. Og skal støckva blodenu siø=
sinnum med sínum fingre þar á, og
hreinsa þad og helga þad af Israels
barna óhreinleika.

20. Og sem hann hefir sullkomn=
ad helgedomsins forlíkun, og sam=
kundu=tialldbúdarennar og alltar=
esins, þá skal hann frammleida
þann lifanda hafurenn.

21. Þá skal Aaron leggia sínar
bádar hendur yfer hans høfud, og
medkenna allar Israels barna syn=
der yfer hønum, og allar þeirra
yfertrodslur, í øllum þeirra synd=
um, og skal leggia þær uppá haf=
ursins høfud, og senda burt í audn
med einum Manne, sem þar er fyr=
er hende,

22. Ad hafurenn bere so alla þeir=
ra misgerninga á ser, í eina ville
audn, og láta hann þar epter í ey=
demørkenne.

23. So skal Aaron ganga inn í
samkundu=tialldbúdena, og færa
sig af línklædunum sem hann for í,
þá hann geck inn í helgedomenn, og
láta þau þar epter.

24. Og hann skal lauga líkama
sinn í vatne, í þeim helga stad, og
færa sig í sín eigenn klæde, og gán=
ga so út, og gera so bæde sitt eiged
brenneoffur og folksins brenneoff=
ur, og gera forlíkun bæde fyrer sig
og fyrer folked,

25. Og skal upptendra þad feita
af syndafórnenne á altarenu.

26. Enn sá sem færde þann lausa
hafur í burt, skal þvo sín klæde, og
þvo sinn líkama í vatne, og ganga
sídann í herbúdernar.

27. Enn syndafórnar=uxann, og
hafurenn til syndaoffurs, hvers
blod inn er bored í helgedomenn til
forlíkunar, skulu Menn bera út fyr=
er herbúdernar, og brenna med ell=
de þeirra húd, holld og myke.

28. Og sá sem þá brenner, skal
þvo sín klæde, og lauga sinn líkama
í vatne, og koma þar epter í herbúd=
ernar.

29. Og þetta skal vera ydur ein
eylíf skickan: Þer skulud þiá ydra
líkama, þann tíunda dag í þeim
siøunda mánade, og eigi erfide
fremia, hverke innbyggiarar ne
framande á medal ydar.

30. Fyrer því, ad ydar forlíkun
sker á þeim deige, ad þer skulud vera
hreiner gerder, af øllum ydrum
syndum erud þer hreinsader fyrer
Drottni.

31. Þar fyrer skal þad vera ydar
hid stærsta sabbath, og þer skulud
þiá ydra líkame, og þetta skal vera
ydur ein eylíf skickan.

32. Enn þessa forlíkun skal einn
prestur gera, sá sem vígdur hefir
vered, og hvers hønd ad Madur hefir
uppfyllt, til prestsembættis í hans
fødurs stad. Og hann skal færa sig
í þau línklæde, sem eru þau hei=
løgu klæde,

33. Og forlíka so þann heilaga hel=
gedom, og samkundu=tialldbúde=
na, og alltared og prestana, og allt
folked safnadarins.

34. Þad skal vera ydur ein eylíf
skickan, ad þer forlíked Israels børn
af øllum þeirra syndum, einu sinne
um áred, og Moses gerde sem Drott=
inn hafde bifalad hønum.

## 17. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mo=
sen og sagde,

2. Tala þú til Aarons og hans
sona, og allra Israels barna, og seig

þú til þeirra: þetta er það sem Drottinn hefir boded,

3. Hver af Israels húse sem slátrar einum uxa, eda lambe, eda geitsaud, í herbúdunum, eda fyrer utan herbúdernar,

4. Og ber það eigi framm fyrer samkundu-tialldbúdardyrnar, ad það se bored Drottni til offurs, fyrer tialldbúd Drottins, hann skal vera blóðs sekur, so sem sá ad út hefir hellt blóde, og soddann manneskia skal afmád verda frá sínu folke.

5. Þar fyrer skulu Israels børn færa sínar forner, þær sem þau vilia færa, ute, á vídum vøllum, framm fyrer Drottinn, utan fyrer samkundu-búdardyrnar, til prestsins, og þar skulu þeir offra Drottni þackoffur.

6. Og presturenn skal støckva blódenu á alltare Drottins, fyrer utan samkundu-tialldbúdarennar dyr, og upptendra það feita, Drottni til sæts ilms.

7. Og þeir skulu í engann máta hedan af færa diøflenum þeirra fórner, med hveríum þeir fremia sínar hóraner. Þetta skal vera þeim ein eylíf skickan, hia þeirra epterkomendum.

8. Þar fyrer skalltu seigia til þeirra, hver madur af Israels húse, eda Utlendingur á medal ydar, sem færer fórn, eda brenneoffur,

9. Og ber það eigi framm fyrer samkundu-tialldbúdarennar dyr, til ad gera það Drottni, hann skal upprætast fra sínu folke.

10. Og hver madur sem nockud blód etur, hvert helldur hann er af Israels húse, eda einn framande á medal ydar, í gegn hønum vil eg setia mitt andlit, og rickia hønum frá sínu folke.

11. Þviad lífed líkamans er í blódenu, og eg hefe gefed ydur það til alltarisins, ad ydrar sáler skulu þar med forlíkast, þviad blóded er forlíkunenn fyrer lífed.

12. Þar fyrer hefe eg sagt til Israels barna: engen sál skal eta blód á medal ydar, og eige helldur nockur framande madur, sem byr á medal ydar.

13. Og hver sá madur sem veider eitt dyr, eda einn fugl, sem Madur má eta, hvert helldur hann er af Israels huse, eda framande á medal ydar, þá skal hann uthella blódenu af því, og hylia það med jørdu. Því líf líkamans er í blódenu, so leinge sem hann lifer, og eg hefe sagt til Israels barna:

14. Þer skulud eigi eta blóded af því sem hefir líf, þviad lífed líkamans er í sínu blóde, hver það etur, hann skal upprickiast.

15. Og hver sál sem etur nockud hræ, eda það sem slited er af dyrum, hvert hann er helldur innbyggiare eda framande, hann skal þvo sín klæde, og bada sig í vatne, og vera óhreinn til kvøllds, þá verdur hann hreinn.

16. Þvær hann eigi sín klæde, og badar sig eigi, þá skal hann vera sakadur í sínum misgerninge.

## 18. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala þú vid Israelis børn, og seig þú til þeirra: eg em Drottinn ydar Gud.

3. Þer skulud ecke gera epter Egyptalands gerningum, þar sem þer biuggud, eigi helldur epter Canaans lands gerningum, þar sem eg vil innleida ydur. Þer skulud og eigi hallda ydur epter þeirra setningum,

4. Helldur skulud þer hallda ydur epter mínum rette, og mína

setninga skulud þer hallda, ad þer ganged í heim, því eg em Drottinn ydar Gud.

5. Þar fyrer skulud þer og hallda mína stickan, og minn rett, því hver hellst Manneskia sem þad gerer, skal lifa þar af, þviad eg em Drottinn.

6. Eingenn madur skal liggia med sinne nánustu ættkonu, ad opennbera hennar blygdun, því eg em Drottinn.

7. Þú skallt eigi opennbera þíns fødurs, eda þinnar modur blygdun. Hún er þín móder, þar fyrer skalltu eigi opennbera hennar blygdan.

8. Þú skallt eigi opennbera blygdun þinnar fødurs kvinnu, því þad er blygdan þíns fødurs.

9. Þú skallt eigi opennbera blygdan þinnar systur, sem er þíns fødurs, eda þinnar modur dotter, hvert helldur hún er fædd heima, eda annarstadar.

10. Þú skallt eigi opennbera blygdan þinar sonardottur, eda þinnar dotturdottur, því þad er þín blygdan.

11. Þú skallt eigi opennbera blygdun þinnar stiupmodur dottur, sem er fædd af þínum fødur, og er þín syster.

12. Þú skallt eigi opennbera blygdun þinnar fødur systur, því hún er nánust þínum fødur.

13. Þú skallt eigi opennbera þinnar modur systur blygdan, því hún er skylldust þinne modur.

14. Þu skallt eigi opennbera blygdun þíns fødurbródurs, ad þú snerter hans kvinnu, því hún er þín siffona.

15. Þú skallt eigi opennbera blygdan þinnar sonarkonu, því hún er þíns sonar kvinna, þar fyrer skalltu eigi opennbera hennar blygdan.

16. Þú skallt eigi opennbera blygdan þinnar brodurs kvinnu, því hún er þíns brodurs blygdan,

17. Þú skallt eigi opennbera þinnar kvinnu, og hennar dottur blygdan, eigi helldur taka hennar sonardottur, eda dottur dottur, ad opennbera hennar blygdan, því þad er hennar nærsta ætt, og er skammarligt.

18. Þú skallt eigi taka þinnar kvinnu syster med henne, og opennbera hennar blygdan henne í móte, þá stund sem hún enn lifer.

19 Þú skallt eigi ganga til nockorar kvinnu, nær hún hefir sinn siukdom, ad opennbera hennar blygdan, í hennar óhreinleika.

20. Þú skallt eigi liggia hiá kvinnu þíns náunga, ad hafa samræde med henne, hvar med þú saurgast af henne.

21. Þú skallt eigi gefa af þínu sæde til ad brenna þad fyrer Molech, so þú vanhelger eigi þíns Guds nafn, því eg em Drottinn.

22. Þú skallt eigi liggia hiá einum karlmanne sem hiá einnre kvinnu, því þad er svívirdelegt.

23. Þú skallt og eigi samlagast nockru kvikende, so ad þú saurgest af því, og eingenn kvinna skal samlaga sig nockoru dyre, því þad er ein svívirding.

24. Þer skulud eigi saurga ydur af nockoru þessu, þviad heidingiarner hafa saurgad sig med þessu øllu saman, hvera eg vil í burt reka fyrer ydur,

25. Og landed er saurgad þar af, og eg vil vitia þeirra synda yfer þeim, so ad landed skal utskirpa sínum innbyggiurum.

26. Hallded þar fyrer minn setning og mína dóma, og gered eigi neitt af þessum svívirdingum, hvert hann er helldur innbyggiare eda framande hiá ydur.

27. Þvi þetta lands folk, sem var fyrer ydur, gerde soddan svívirdingar, og hafa þar med saurgad landed,

28. So ad landed eigi utskirpe ydur, ef þer saurged þad, líka sem þad utskirpte heidingium, sem þar voru fyrer ydur.

29. Þviad hverer sem gera nockud af þessum svívirdingum, þeirra sáler skulu eydeleggiast frá þeirra folke.

30. Halldeð þar fyrer mínar skickaner, og gered eigi nockud af þessum andstyggelegum hlutum, so sem þeir ed þar voru fyrer ydur, ad þer saurged ydur eigi þar med, þvi eg em Drottinn ydar Gud.

## 19. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala þú vid allann almúgann af Israels børnum, og seig til þeirra: þer skulud vera heilager, þvi eg em heilagur, Drottinn ydar Gud.

3. Hver skal óttast sinn fødur og sína modur. Halldeð mína helgedaga, þvi eg em Drottinn ydar Gud.

4. Þer skulud eigi snua ydur til afguda, og eige skulud þer gera ydur steypta afgude, þvi eg em Drottinn ydar Gud.

5. Og nær þer viled fœra Drottni þacklætis-fórner, þá skulud þer offra þvi sem honum má þocknast,

6. Enn þer skulud eta þad, þann sama dag, sem þer offred, og nærsta dag þar epter, enn hvad sem leifest til hins þridia dags, þad skal brennast med elldε.

7. Enn ef nockur etur af þvi á þeim þridia deige, þá er hann ein svívirding, og er eigi þacknæmur.

8. Og sá sem þad etur, hann skal bera sinn misgerning, þvi hann saurgade Herrans helgedom, og soddann sáler skulu upprætast, frá sínu folke.

9. Nær þú uppsker korned af þínum akre, þá skalltu eigi allt saman uppskera, af endum þíns akurs, og ei ofnaumlega safna øllu saman þínu korne.

10. So og skalltu eigi helldur grandvarlega saman lesa þín vínber, af þínum víngarde, og eige skalltu safna upp þeim vínberium sem nidur eru fallenn, helldur skalltu unna þess fátækum, og framande mønnum, þvi eg em Drottinn ydar Gud.

11. Þer skulud eigi stela, og eigi helldur linga, og eigi helldur falsklega høndla einn vid annann.

12. Þer skulud eigi falsklega sveria vid mitt nafn, og vanhelga ydar Guds nafn, þvi eg em Drottinn.

13. Þú skallt eigi gera órett þínum náunga, eigi helldur ræna hann, láttu eigi daglauna-mannsins verkkaup vera hia þer allt til morguns.

14. Þú skallt eigi bølva þeim daufa. Þú skallt eigi leggia neitt í veigenn fyrer þann hinn blinda, so hann meige detta um, þviad þú skallt óttast fyrer þínum Gude, þvi eg em Drottinn.

15. Þer skulud eigi høndla óretteлега í dómum, og þú skallt eigi alíta þann lítelmagna, og eigi helldur heidra þann vollduga, helldur skalltu rettelega dæma yfer þínum náunga.

16. Vertu eingenn baktalare á medal þíns folks. Þú skallt eige helldur stunda epter þíns náunga blóde, þvi eg em Drottinn.

17. Þú skallt eigi hata þinn brodur, í þínu hiarta, helldur skalltu straffa þinn náunga, so þú berer ei skulld hans vegna.

18. Vert þú eigi hefndargiarn, og eigi helldur langrækenn vid børn þíns folks. Þú skallt og elska þinn náunga so sem sialfann þig, þvi eg em Drottinn.

19. Þer skulud hallda mína setninga, ad þú láter eigi þinn fenad samblanda sig vid nockur annars slags kvikende. Og eigi sá þinn akur med blønduðu korne. Og ber ei þau klæde á þer, sem ofenn eru bæde af ullu og líne.

20. Ef nockur madur liggur hiá einnre kvinnu, og samrædest henne sem er ein ambatt, og er kreinkt af Manne, þó eigi gefenn frí, eda fríals látenn, þad skal vera straffad, enn þó skulu þau eigi deya, þvi hún var eigi frí.

21. Enn hann skal bera framm fyrer Drottinn, fyrer sína synd, einn hrút til skulldaoffurs fyrer samkundu tialldbúdardyrnar.

22. Og presturenn skal gera eina forlíkun fyrer Drottni, med þeim sama skulldaoffurs hrute, fyrer þá synd sem hann hefir gert, so mun Gud vera hønum nádugur, yfer hans syndum, sem hann hefir gert.

23. Nær þer komed inn í landed, og þer planted allra handa tre, sem Menn eta af, þá skulud þer umskera þeirra yferhúd, og þeirra ávaxta. Í þriú ár skulud þer hallda þau fyrer óumskorenn, ad þer eted eigi af þeim.

24. Enn á fiórda árenu skal allur þeirra ávøxtur vera Drottni helgadur og loflegur.

25. Enn á þvi fimmta áre skulud þer eta af ávextenum, og safna hønum til samans, þvi eg em Drottinn ydar Gud.

26. Þer skulud eckert med blóde eta. Þer skulud engann gaum gefa ad fugla kvake, eigi helldur utvelia daga.

27. Þer skulud eigi kríngumskera ydart høfud-hár, og eigi med øllu afraka ydart skegg.

28. Þer skulud eigi skera nockud teikn fyrer skulld þess dauda á ydrum líkama, edur skera nockra bokstafe á ydur, þvi eg em Drottinn.

29. Þú skallt eigi hallda þinne dottur til saurlifnadar, so ad landed freme eigi hóraner, og verde glæpafullt.

30. Halldед mína hvíldardaga, og hræded fyrer mínum helgedóme; þvi eg em Drottinn.

31. Snúed ydur eigi til spásagnar Manna, og þer skulud einskis spyria af þeim, sem fara med teikna þýdingar, so ad þer saurgest eigi af þeim, þvi eg em Drottinn ydar Gud.

32. Þu skallt standa upp fyrer þeim gráhærda, og heidra hinn gamla, þvi þú skallt óttast fyrer þínum Gude, þvi eg em Drottinn.

33. Ef ad einnhver Utlendskur byr hiá þer í ydru lande, þá skulud þer eigi fefletta hann.

34. Hann skal búa hiá ydur sem annar innlendskur, og þú skallt elska hann sem sialfann þig, þvi þer hafed og vered Utlender í Egyptalande, eg em Drottinn ydar Gud.

35. Þer skulud eigi ójafnadarlega høndla í domum, med alenn, med vigt, og med mæler,

36. Rettar voger, rett pund, og rett mælekerølld, og rettar kønnur skulu vera hiá ydur, þviad eg em Drottinn ydar Gud sem leidde ydur af Egyptalande,

37. Ad þer halldеd og gered alla mína setninga, og allann minn rett, þvi eg em Drottinn.

## 20. Capitule.

1. Og Drottinn taladе vid Mosen, og sagde:

2. Seig þú Israels børnum: hver á medal ydar, Israelis barna, eda

einn framande, sem byr í bland Ís-
rael, og gefur Molech af sínu sæde,
hann skal vissulega deya, folked í
landenu skal gryta hann íhel.

3. Og eg vil setia mitt auglit
imót soddann Manne, og uppræta
hann frá sínu fólke, þar fyrer, ad
hann gaf Molech af sínu sæde, og
gerde óhreinann minn helgedom,
og vanhelgade mitt heilagt nafn.

4. Enn ef folked í landenu ser í
gegnum singurnar, med soddann
Manne, sem Molech gefur af sínu
sæde, og vill eigi slá hann íhel,

5. Þá vil eg þo setia mit auglit
imóte þeim sama Manne, og í gegn
hans ætt, og eg vil uppræta hann
frá hans folke, og so þá alla sem
framed hafa hórdom epter hønum,
med Molech.

6. Nær ein sál snyr ser til spá-
sagnara, eda þeirra, sem teikn út-
leggia, og hún hóraſt epter þeim,
þá vil eg setia mitt auglit igegn
þeirre sønu sál, og afmá hana frá
sínu folke.

7. Þar fyrer gered ydur hei-
laga, og vered heilager, þviad eg em
Drottinn ydar Gud,

8. Og hallded mína setninga, og
gered þá, þvi eg em Drottinn, sem
ydur gerer heilaga.

9. Hver sem bølvar sínum fød-
ur, eda sinne modur, hann skal dau-
da deya, hans blód se yfer hønum,
þvi hann bølvade sínum fødur, ed-
ur módur.

10. Hver sem hóraſt med nock-
urs Manns kvinnu, hann skal dau-
da deya, bæde hórkarlenn og so
hórkonann, þar fyrer ad hann drig-
de hór med síns náunga kvinnu.

11. Ef nockur liggur med eigenn-
konu síns fødurs, so ad hann hefir
openberad síns fødurs blygdan, þá
skulu þau bæde dauda deya, þeirra
blod se yfer þeim.

12. Ef nockur liggur med sinne
sonarkvinnu, þá skulu þau bæde
deya, þvi þau hafa framed eina
skømm, þeirra blód se yfer þeim.

13. Ef nockur liggur hiá einum
karlmanne, so sem hiá einnre konu,
þeir hafa gert eina svívirdelega
skømm, og skulu báder dauda deya,
þeirra blód se yfer þeim.

14. Ef nockur tekur eina kvinnu,
og so líka hennar móder, hann hef-
ir framed eina skømm, og hann skal
brennaſt í ellde, og þau bæde, so þat
verde ei glæpur á medal ydar.

15. Ef einhver samblandaſt fena-
de, þá skal hann vissulega deya,
og gripurenn skal deydaſt.

16. Ef kvinna samlagar sig nocko-
ru kvikende, so ad hún hefir samræ-
de med þvi, hana skalltu deyda, og
so kvikended med, þau skulu dauda
deya, og þeirra blód se yfer þeim.

17. Ef nockur tekur sína syster,
síns fødurs dottur, eda sinnar mod-
ur dottur, og ser hennar blygdan,
og so hún aptur á móte hans blygd-
an, þad er ein blódskømm, þau sku-
lu upprætaſt fyrer folksins augsyn,
þvi hann openberade sinnar systur
blygdun, hann skal bera sinn mis-
gerning.

18. Ef nockur madur liggur hiá
einnre kvinnu, þá hún hefir sinn
kvennlegann kránkleika, og open-
berar hennar blygdan, og opnar
hennar brunn, og hún openberar
sinn blóds brunn, þau skulu bæde
upprætaſt frá sínu folke.

19. Þú skallt eigi openbera
blygdan þinnar modur systur, eda
þinnar fødur systur, þvi slíkur mad-
ur openberadi sína náunſtu frænd-
konu, og þau skulu bera sinn mis-
gerning.

20. Ef nockur legſt med síns fød-
urs bródurs eigennkonu, hann hef-
ir openberad blygdan síns fødurs

broburs, þau skulu bera sína synd, og deya barnlaus.

21. Ef nockur tekur síns bródurs kvinnu, það er eitt skemdar verk, þau skulu vera án barna, því hann openberade síns broburs blygdan.

22. So hallded nú alla mína setninga, og mínn rett, og gered þar epter, uppá það, ad landed skule eigi utskirpa ydur, í hvert eg vil innleida ydur, só ad þer búed þar inne.

23. Og ganged eigi í setningum heidingianna, hveria eg vil utreka fyrer ydur, þviad allt soddann hafa þeir gert, og mer er andstyggd á þeim.

24. Enn eg seige ydur: þer skulud eignast þeirra land, því eg vil gefa ydur eitt land til erfdar, í hveru ad flytur miolk og hunáng. Eg em Drottinn ydar Gud, sem ad ydur hefir skiled frá ødrum þiodum,

25. So þer skulud og skilia það hreina kvikinde frá því óhreina, og óhreina fugla, frá þeim hreinu, og þer saurged eigi ydar sáler á kvikindum, á suglum, og á því nockoru, sem skrídur á jørdunne, hvert ad eg hefe fráskiled fyrer ydur, ad það skule vera óhreint.

26. Þar fyrer skulud þer vera mer heilager, því eg Drottinn em heilagur, sem ydur hefir adskiled frá þiodunum, ad þer skulud vera míner.

27. Þá nockur madur eda kvinna fremur spásagner, eda teikna útleggingar, þau skulu dauda deya, og skulu grytast íhel, þeirra blód se yfer þeim.

## 21. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen: tala þú til prestanna Arons sonu, og seig þú til þeirra, eingenn prestur skal gera sig óhreinann á nockorum frammlidnum af sínu folke.

2. Utann á sínum skylldum, sem hønum nánastur er, sem ad er, hans moder, hans fader, hans sonur, hans dotter, hans broder,

3. Og hans syster, sem enn er jungfru, og er nú enn hiá hønum, og hefir eigi átt Mann, fyrer þessa má hann saurga sig.

4. Annars skal hann eigi gera sig saurugann fyrer nockurn annann hønum skylldann, á medal hans folks, so ad hann vanhelge sig eigi.

5. Þeir skulu eigi raka nockra krúnu á sitt høfud, og eigi helldur raka sitt skegg af, og eigi helldur skera nockurt teikn á sinn líkama.

6. Þeir skulu vera heilager fyrer sínum Gude, og eigi vanhelga þeirra Guds nafn, því þeir offra Drottins offre, þeirra Guds braude, þar fyrer skulu þeir vera heilager.

7. Þeir skulu eigi eiga nockra port-konu, eda þá sem er leigenn, eda þá sem er skilenn frá sínum Manne, því hann er heilagur fyrer sínum Gude.

8. Þar fyrer skalltu hállda hann helgann, því hann offrar þíns Guds braude, hann skal vera þer heilagur, því eg Drottinn em heilagur, sem ydur gerer heilaga.

9. Nær ein kennemanns dotter tekur ad fremia saurlifnad, hana skal brenna í ellde, því hún hefir skammad sinn fødur.

10. Sá sem hinn ypparste prestur er á medal sinna brædra, yfer hvers høfud ad hellt er því smurningar oleo, og hans hønd er uppfylld, so hann er klædtekenn, hann skal eigi vera med beru høfde, og eigi skera sín klæde.

11. Og hann skal eigi koma nær nockurs dauds Manns líkama, og hann skal eigi saurga sig, hverke á fødur ne modur.

12. Hann skal og eigi ganga af helgedomenum, so hann vanhelge eigi síns Guds helgedom, þvi su hin helga korona og hans Guds smurningar oleum, er á hønum, eg em Drottinn.

13. Hann skal taka ser eina jungfru, til eigenkonu,

14. Enn enga eckiu, eda Manne fráskilda, eda legna, eda lausakonu, helldur skal hann taka ser eina jomfru, af sínu folke, ser til eigennkonu

15. So hann vanhelge eigi sitt sæde á millum síns folks, þvi eg em Drottinn, sem hann gerer helgann.

16. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

17. Tala þú vid Aaron, og seig þú, nær þar er nockur vanskøpun á nøckrum Manne af þínu sæde, í ydrarri ætt, þá skal hann eigi ganga framm ad offra síns Guds braude.

18. Þviad eingenn, sá sem hefir nockurn brest, skal ganga framm, hvert helldur hann er blindur, halltur, nefliotur, edur sá sem med vanskøpudum limum er,

19. Edur sá sem hefir hremming nockra á hende eda fæte,

20. Edur keing-hriggiadur, eda hafe hann vagl á auga, eda se hann skackeygdur, eda skurfottur, eda kládugur, eda kvidslitenn.

21. Eingenn prestur af Aarons sæde, sem hefir nockurn soddann fyrr-greindann brest á ser, skal ganga framm ad offra Drottins offre, þvi hann hefir soddann lyte, þar fyrer skal hann eigi ganga framm ad offra síns Guds braude.

22. Enn þo skal hann eta af braude Drottins, bæde af þvi heilaga, og so af þvi allra-heilagasta,

23. Enn þo skal hann eigi ganga til fortialldsins, og eigi helldur framann til alltaresins, fyrst hann hefir soddann brest, so ad hann eigi vanhelge minn helgedom, þvi eg em Drottinn, sem gerer þá heilaga.

24. Þetta mællte Moses vid Aaron og hans sonu, og vid øll Israelis børn.

## 22. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Seig til Aarons og hans sona, ad þeir hallde sig frá þvi hinu helgada Israelis barna, þad þeir helga mer, og vanhelge eigi mitt heilaga nafn, þvi eg em Drottinn.

3. Só seig þú nú þeim þetta vegna þeirra nidia: hver af ydro sæde sem framm gengur til þess sem heilagt er, og Israels børn hafa helgad Drottni, og saurgar sig á þvi hinu sama, hans sál skal upprætast frá minu andlite, þvi eg em Drottinn.

4. Hver sem er líkþrár af Aarons sæde, eda hefir afrás (af sínu hollde) hann skal eigi eta af þvi heilaga, fyrr enn hann er ordenn hreinn. Hver sem snerter nockurn óhreinann líkama, eda lætur sitt sád frá ser í svefne,

5. Og hver þar snerter, vid nockurum ormi, sem hønum er óhreinn, edur einum Manni, sem fyrer hønum er saurugur, og allt þad sem hann kann ad gera óhreinann,

6. Hver sál sem snerter vid nockud af þessu, hún er óhrein til kvøllds og skal eigi eta af þvi heilaga, helldur skal hann fyrst lauga sinn líkama í vatne,

7. Og þá solenn er undergeingenn, og hann er ordenn hreinn, þá má hann eta þar af, þvi þad er hans atvinna,

8. Hann skal eigi eta af nockoru hræe, eda þvi sem slited er af villudyrum, so hann verde eige óhreinn af þvi, þvi eg em Drottinn.

9. Þar fyrer skulu þeir hallda

mínar skickaner, so þeir hlade sig eigi syndunum, og deye af því, þá þeir vanhelga sig, því eg em Drottinn sem helgar þá.

10. Og þar skal engenn annarlegur eta af því heilaga, hverke prestsins hiú, ne hans daglauna-Menn.

11. Enn ef presturenn hefir keypt nockora sál fyrer sína peninga, hún má eta þar af, og það sem fædist í hans húse, það má og eta af hans braude.

12. Enn verde nockurs prests dotter eigenkona nockurs framande Manns, þá skal hún eigi eta af þeirre heilögu upplyptingu.

13. Enn se hún eckia, eda utreckenn frá Manne, og hefir ecke sæde, og kemur so aptur til síns födurs húss, þá skal hún eta af síns födurs braude, so sem þá hún var jomfru, enn eingenn framande skal eta þar af.

14. Enn ef nockur etur óvitande af því heilaga, hann skal leggia þann simmta part þar til, og gefa prestenum það med því heilaga,

15. So þeir vanhelge eigi það heilaga Israels barna, það þeir upplypta fyrer Drottni,

16. So þeir þynge sig eigi sialfa med sökum og misgerningum, þá þeir eta þeirra ed heilaga, því eg em Drottinn sem þá helgar.

17. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

18. Seig þú Aarone, og hans sonum, og öllum Israels börnum, ad hver Israelite, eda framande í bland Israel, sem gera vill sitt offur, hvert helldur það er heit, eda af lostugum vilia, til ad gera Drottni eitt brenneoffur, ad þocknast honum þar med,

19. Þá skal það vera karlkins, lastalaust, af nautum, saudum, eda geitum.

20. Þer skulud engu offra af því, sem nockurn brest hefir á ser, því það verdur eigi þacknæmt af ydur.

21. Og hver hann vill færa Drottni þacklætisoffur, eitt serlegt heit, edur af sínum lostugum vilia, af nautum, eda saudum, það skal vera lastalaust, so það verde þacknæmelegt, það skal engann löst hafa.

22. Se það blindt, ellegar veiklad, eda sleiged, eda magurt, eda bólged, eda kládugt, þá skulud þer eigi offra það Drottni, og eige helldur gefa neitt offur af soddan, á alltare Drottins.

23. Þann uxa edur saud, sem hefir nockra serlega vanskøpun, eda nockurn vanskapadann lim, máttu offra af lostugum vilia, enn í heit er það eigi þacknæmelegt.

24. Þú skallt og eigi helldur offra Drottni nockru því, sem er mared, eda í sundur rifed, eda í sundur slited, eda sárt gert, þer skulud eigi gera soddann í ydar lande.

25. Þú skallt og eigi offra nockoru þvílíku af hende þess framanda, hiá ydars Guds braude, því það duger eigi, og hefir lyte, þar fyrer er það eigi þacknæmt fyrer ydur.

26. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

27. Þá eitt naut, lamb, eda kid, fædist, þá skal það vera í siø daga hia sinne modur, og á þeim áttunda deige, og þar epter má það offrast Drottni, og so er það þacknæmt.

28. Hvert það er helldur naut eda saudur, þá skal eigi slátra því á einum sama deige, med sínu afkvæme.

29. Enn þá þer offred Drottni einu lofgerdar offre, sem þacknæmt kann ad verá ydar vegna,

30. Þá skulud þer eta það þann sama dag, og leyfa ecke til morguns, því eg em Drottinn.

31. Þar fyrer hallded min bodord, og gered þar epter, þvi eg em Drottinn,

32. Ad þer vanhelged eigi mitt heilaga nafn, og eg meige vera heilagur á millum Israels barna,

33. Þvi eg em Drottinn, sá ydur helgar, sem útleidde ydur af Egyptalande, ad eg villde vera ydar Gud, eg Drottinn.

## 23. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala þú til Israels barna, og seig þú til þeirra, þessar eru hátíder Drottins, sem þer skulud heilagar og mínar hátíder kalla, nær þer til samans komed.

3. Sex daga skalltu erfida, enn sá siounde dagur er sá mikle heilage sabbaths dagur, á hverum þer skulud koma til samans, þer skulud ecke erfida á þeim deige, þvi þad er sabbaths dagur Drottins, í øllum ydar hybílum.

4. Þessar eru hátíder Drottins, sem þer skulud kalla helgar hátíder, á hverum þer komed samann.

5. Þann fiortanda dag í þeim fyrsta mánade, ad aptne, erú páskar Drottins,

6. Og sá fimmtande dagur í sama mánade er ósyrdra brauda hátíd Drottins, þá skulud þer eta ósyrt braud í siø daga.

7. Sá firste dagur skal kallast heilagur á medal ydar, þar sem þer komed tilsamans, þá skulud þer aunga þrælkunar þionustu vinna.

8. Og þer skulud færa fórner Drottni í siø daga, sá siounde dagur skal og kallast heilagur, á hverum þer komed samann, þá skulud þer eigi helldur vinna nockora þrælkunar þionustu.

9. Og Dróttinn talade vid Mosen, og sagde:

10. Tala þú til Israelis barna, og seig þú til þeirra: nær þer komed í þad land sem eg mun gefa ydur, og þer þar skered ydart korn, þá skulud þer bera eitt bindene til kennemannsins, af firsta gróda ydars kornskurdar

11. Þad bindene skal vegfast fyrer Drottni, so þad se þacknæmt af ydur. Enn þetta skal presturenn gera annann dagenn epter sabbathinn:

12. Þer skulud og gera Drottne eitt brenne-offur, þann sama dag sem ydart bindene so vegfist af einu lambe sem er án lyta, og skal vera árs gamallt,

13. Med mat-offre, tveimur tíundu pørtum hveite miøls, meingudu med oleo, Drottni til offurs eins sætleiks ilms, þar til dryckiar-offur, einn fiorda part af einu hin víns.

14. Og þer skulud eigi eta nytt braud, eigi steikt ax, eigi korn, fyrr enn þann dag þer bered ydrum Gude offur, þetta skal vera ein skickan fyrer ydar epterkomendur, hvar sem hellst þer búed í øllum ydar heimelum.

15. Enn þar epter skulud þer telia frá þeim ødrum deige epter sabbathinn, á hverum þer bered ydar veyfunar bindene framm, siø heila sabbathsdaga,

16. Allt til annars dags epter siøunda sabbath, sem er, fimmtíu daga skulud þer telia, og færa Drottni nytt mat-offur,

17. Og þer skulud offra þad af øllum ydar heimelum, sem er, tvø veyfunar braud af tveimur tíundu pørtum hveitemiøls, syrd og bøkud, Drottni til ens firsta ávartar-offurs.

18. Og þer skulud frammbera,

med ydru braude, siø lømb árs gømul lytalaus, og einn ungann uxa, og tvo hruta, þad skal vera Drottins brenne=offur, mat=offur, og dryckiar=offur, þad er offur sætleiks ilms fyrer Drottni.

19. Sídann skulud þer færa einn kiarahafur til synda=offurs, og tvø lømb árs gømul, til þackar offurs,

20. Þeim skal presturenn veyfa med þvi frumfórnar braude, fyrer Drottni, og med þeim tveimur lømbum, og þad skal vera Drottni helgad, og heyrá til presténum.

21. Og þer skulud bióda þennann dag, þvi hann skal verda heilagur medal ydar, á hverum þer komed tilsamans, þer skulud enga erfidis vinnu gera. Þad skal vera einn eylífur setningur, hiá ydrum epterkomendum, á øllum ydrum heimelum.

22. Enn þegar þer upp vinned ydart land, þá skulud þer eigi med øllu allt korn uppskera, af ydrum akre, og eigi smásmuglega samansafna, helldur skulud þer láta nockud epter verda, handa þeim fátæka og Utlenda: eg em Drottinn ydar Gud.

23. Og Drottinn talade vid Mosen og sagde:

24. Tala þú vid Israels børn og seig: þann firsta dag í þeim siøunda mánade, þá skulud þer hallda þad heilaga sabbath (basunu) blástursins til minningar, þá þer komed tilsamans,

25. Þá skulud þer eckert erfide vinna, og þer skulud færa Drottni fórner.

26. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

27. Þann tíunda dag í þeim siøunda mánade, er forlíkunarennar dagur, hann skal kallast helgur hiá ydur, so þer komed tilsamans, þá skulud þer þiá ydra líkame, og færa Drottni fórner.

28. Og þer skulud enga vinnu fremia á þeim deige, þvi þad er forlíkunar dagur, ad þer meiged verda forlíkter vid Drottinn ydar Gud.

29. Þviad hver sem eigi þiáer sinn líkama, á þeim sama deige, hann skal uppslitenn verda frá sínu folke.

30. Og hver sem gerer nockud erfide á þeim deige, þann vil eg afmá frá sínu folke,

31. Þar fyrer skulud þer eckert erfidi gera, þad skal vera einn æfinnlegur setningur hiá ydrum epterkomendum í øllum ydar hybílum.

32. Þad er ydar hinn mikle sabbaths dagur, ad þer skulud þiá ydra líkame. Enn þann níunda dag í mánadenum, ad kvøllde, skulud þer hallda þennann sabbath, frá kvøllde, og allt til annars kvøllds.

33. Og Drottinn talade vid Mosen og sagde:

34. Tala þú vid Israels børn, og seig: Þann fimmtanda dag, í þeim sama siøunda mánade, er laufskála hátíd, í siø daga fyrer Drottni.

35. Sá firste dagur skal kallast heilagur, ad þer komid tilsamans, og þer skulud enga erfidis vinnu þiona.

36. Þer skulud færa fórner Drottni í siø daga, sa áttundi dagur skal og kallast heilagur, so þer komed tilsamans, og þer skulud gera Drottni ydart offur, þvi þad er samkundudagur, þer skulud enga erfidis vinnu fremia.

37. Þessar eru nú Drottins hátíder, sem þer skulud hallda heilagar, ad þer komed tilsamans, og gered Drottni offur, brenne=fórner, mat=offur, dryckiar=offur, og so ønnur offur, hvert á sínum deige,

38. Ad auk þess sem er Drottins sabbath, og ydar gáfur, og heit, og losiugat gáfur, sem þer gefed Drottni.

39. So skulud þér hallda Drottins hátíd þann fimmtanda dag í þeim siounda mánade, siø daga samfleytt, þá þer hafed innsafnad árssins ávexte af jørdunne. A firsta deige er þad sabbáth, og þann attunda dag er og so sabbath.

40. Og á þeim firsta deige skulud þer taka ávøxtenn af þeim føgru alldin-triám, palmvidar kvistu, og laufgada kvistu af þyckvørnum eikum, og vider hiá lækium, og vera glader fyrer Drottni ydrum Gudi í siø daga,

41. Og þer skulud hallda Drottni þá somu hátíd, siø daga á árinu. Þad skal vera ein eylíf skickan hiá ydrum epterkomendum, ad þeir hallde so þessa hátíd í þeim siøunda mánade.

42. Siø daga skulud þer í laufskálum búa, hver einn sem er inn-byggiare í Israel, hann skal búa í laufskálum,

43. So ydrir epterkomendur meige vita, hvernenn eg let Israels børn búa í tiølldum, þá eg leidde þá af Egyptalande, eg em Drottinn ydar Gud.

44. Og Moses sagde Israels børnum soddann Drottins hátíder.

## 24. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Biod þú Israelis børnum, ad þau bere þer eitt hreint og steyted vidsmiørs-tres oleum, til liósa, sem ad daglega meige láta ofann í lampana,

3. Fyrer framann vitnisburdarins fortialld, í samkundu-tialldbúdenne. Og Aaron skal tilbúa þá daglega fyrer Drottni, um kvølld og morgna, þetta skal vera ein eylíf skickan hiá ydrum epterkomendum.

4. Enn hann skal tilreida lampana, á þeirre føgru liósastiku, dagliga fyrer Drottni.

5. Og þú skallt taka hveite miøl, og baka þar af tolf køkur, í hverre køku skulu vera tveir tíundu (partar af en Epha).

6. Sídan skalltu leggia þær í tvær rader, sex í rodinne, yfer þad fagra bord fyrer Drottni.

7. Og þú skallt leggia hreint reykelsse ofan á þær, so ad þær seu minningar braud, til eins ellds offur, fyrer Drottni.

8. Alla sabbaths-daga æfinnlega skal hann tilreida þau fyrer Drottni, af Israels børnum, til eylífs sáttmála.

9. Og þau skulu heyra Aarone og hans sonum til, þeir skulu eta þau í heiløgum stad, þvi þad er hans hid allra-helgasta af Drottins offre, til eins eylífs rettar.

10. Enn þar geck út einn Israelitiskrar kvinnu sonur, sem ad var sonur eins Egyptisks Manns, á medal Israels barna, og þráttade vid einn Mann af Israel, í herbúdunum,

11. Og lastade nafned og bølvade. Þá leiddu þeir hann fyrer Mosen (hans moder het Selomith Dibri dotter, af ætt Dans).

12. Og settu hann í fángelsse, þar til ad þeir feingu ad vita klárt atkvæde af munne Drottins.

13. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

14. Hafed hann út fyrer herbúdernar, sem so hefir bølvad, og lát þá alla sem þad heyrdu; leggia sínar hendur yfer hans høfud, og lát allann almúgann lemia hann griót,

15. Og seig Israels børnum, hver sem bølvar sínum Gude hann skal bera sína synd,

16. Hver sem lastar nafn Drottins, sa skal dauda deya, allur almugenn skal gryta hann, líka sem sá framande, so skal og innbyggiarenn vera, nær hann lastar nafned, þá skal hann deya.

17. Ef nockur slær nockra manneskiu íhel, þá skal hann vissulega deya,

18. Enn ef hann slær nockud kvikfe íhel, þá skal hann bitala þad líf fyrer líf.

19. Enn hver sem veiter lemstur sínum náunga, þá skal gera vid hann so sem hann hefir gert,

20. Skada fyrer skada, auga fyrer auga, tønn fyrer tønn, so sem hann hefir lemstrad nockra manneskiu, so skal Madur gera vid hann aptur.

21. Hver sem slær eitt kvikfe til dauds, hann skal bitala þad; enn hver sem slær einn Mann íhel, hann skal deya.

22. Einn rettur skal vera á medal ydar, so vel fyrer þann Utlenda, sem þann Innlenda, þvi eg em Drottinn ydar Gud.

23. Þetta sagde Moses til Israels barna, og þeir leiddu þann blotmann út fyrer herbúdernar, og gryttu hann íhel, og Israels børn gerdu so sem Drottinn hafde boded Mose.

## 25. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen á fiallenu Sinai, og sagde:

2. Tala þú vid Israels børn, og seig þú til þeirra: þegar þer komed inn í þad land, sem eg vil gefa ydur, þá skal landed hallda Drottins hvíldar daga,

3. So ad þú sáer í sex ár þitt akurland, og í sex ár skerer þinn víngard, og safner inn ávextenum,

4. Enn á þvi siounda áre skal landed hallda Drottni sinn stóra hvíldar dag, á hverum þú skallt eigi sá þinn akur, eigi helldur skera þinn víngard.

5. Enn hvad sem uppvex epter þína haustyrkiu, af ser sialfu, þad skalltu eigi uppskera, og þú skallt eigi safna þeim vínþrugum samann, sem vaxa fyrer utann þitt erfide, þviad þad er landsins hvíldarár.

6. Enn þer skulud hallda landsins hvíldarár þar fyrer, ad þú meiger eta þar af, þinn þenare, þín ambátt, þinn daglauna-madur, þitt heimafolk, sá Utlende hiá þer,

7. Þíns fenadar, og dyranna í þínu lande skal allur sá ávextur vera til fædslu.

8. Og þú skallt telia soddann siø hvíldar ár, ad siø ár seu talenn siøsinnum, og sá tíme þeirra siø hvíldarára gera níu ár og fiørutíu.

9. Þá skalltu láta blása í basunur, um allt ydart land, á þeim tíunda deige, þess siounda mánadar, rett á þeim forlíkunar deige.

10. Og þer skulud hallda þad fimtugasta ár heilagt, og kalla þad eitt frelsunar ár í landenu, øllum þeim sem þar búa, þvi þad er ydart fagnadarár. Þá skal hver hiá ydur koma aptur til sinna odala, og til sinnar ættar,

11. Þvi þad fimmtugasta ár er ydart fagnadar ár. Þer skulud eigi sá, og eigi uppskera þad sem vex af ser sialfu, og eigi samansafna í víngardenum, þad sem uppvex án erfidis.

12. Þviad fagnadar áred skal vera heilagt á medal ydar, enn þer skulud eta hvad sem akurenn ber.

13. Þetta er fagnadar áred, ad

hver madur skal koma aptur til síns.

14. Nær þú selur þínum náunga nockud, eda ef þú kauper nockud af hönum, þá skal engenn áseilast sinn brodur,

15. Helldur skalltu kaupa það af hönum, epter þeirre tølu frá fagnadar árenu, og epter áverte epterfylgiande ára, so dyrt skal hann selja þer það.

16. Epter ára-fiøldanum skalltu láta kauped uppstíga, og epter því sem árenn eru fá til, skalltu láta kauped verda ódyrra, því hann skal selia þer það epter áranna gróda.

17. So áseilest nú eingenn sinn náunga, helldur óttast þú fyrer þínum Gude, því eg em Drottinn ydar Gud.

18. Þar fyrer gered epter mínum setningum, og hallded mín rettinde, ad þer gered þar epter, so þer meiged óhræddar búa í landenu,

19. Því landed skal gefa ydur sinn ávøxt, so þer skulud hafa nóg ad eta, og ugglauser búa þar inne.

20. Og ef þú villt seigia: hvad skulum ver eta á því siøunda áre? Þviad ver sáum eigi og søfnum eigi helldur samann nockru korne.

21. Eg vil þá bióda minne blessan yfer ydur á því siøtta áre, so það skal bera þriggia ára ávøxtur,

22. So þer meiged sá á því áttunda áre, og eta af þeim gamla áverte, allt til þess níunda árs, so þer eted af því gamla, þar til ad nytt korn kemur aptur.

23. Þar fyrer skulud þer eigi selia landed æfinlega, þviad landed heyrer mer til, og þer erud gester og framande fyrer mer,

24. Og þer skulud í øllu ydru lande láta landed standa til lausnar.

25. Nær þinn broder verdur so fátækur, ad hann selur þer sína eign, og kome þá hans nánaste frænde til hans, og vill leysa, þá ma hann leysa hvad hans broder hefir sellt.

26. Enn hafe hann engann sem það kann ad leysa, og gete hann med sinne hende orkad so mikels, ad hann meige leysa nockud þar af,

27. Þá skulu Menn reikna frá því áre sem hann sellde, og gefa hinum sem keypte so miked sem epter stendur, so ad hann meige fá sína eign aptur.

28. Enn getur hann eigi orkad so miklu, ad hann fáe nockud aptur, þá skal það sem hann hefir sellt vera í þess hende er keypte, allt til fagnadar-ársins, á því sama skal það undann ganga, og hinn skal koma til sinnar eignar aptur.

29. Hver sem selur eitt hús innann borgar murveggia, hann skal hafa eins heils árs frest til ad leysa það aptur, það skal vera tímenn, innann hvers hann má leysa það aptur.

30. Enn leyse hann það eigi aptur, fyrr enn allt áred er úte, þá skal sá sem það keypte, og hans epterkomendur hallda því húse æfinlega, og það skal eigi ganga til lausnar á því fagnadar-áre.

31. Enn se það eitt hús, þar í þorpum, sem eingenn múr er í kring, þá skulu Menn reikna það so sem annad akur land, og það skal vera til lausnar á því fagnadar-áre, og koma so frelst aptur.

32. Levitanna stader, og þau hús í stødunum, sem þeirra eigner eru út í, meiga alltíd leysast,

33. Ennhver ad nockud leyser af Levitunum, hvert sem það eru hús, edur stader, sem hann hefir átt, þá skal hann láta það til lausnar á því fagnadar-áre, þviad húsenn í Levitanna stødum eru þeirra eignar gots á medal Israels barna.

34. Enn akrarner utann fyrer þeirra stødum skulu eigi seliast, þvi ad þad er þeirra æfinleg eign.

35. Nær þinn broder utarmast, og verdur fátækur hiá þer, þá skalltu taka hann til þín, so sem einn gest edur framanda, ad hann life hiá þer,

36. Og þú skallt ecki okur af hønum taka, og eigi ofmikels af hønum kresia, helldur skalltu óttast Drottinn Gud þinn, so þad þinn broder meige lifa hiá þer.

37. Þvi þu skallt eigi fá hønum þína peninga til okurs, eigi helldur reikna hønum þinn kost ofdyrann,

38. Þvi eg em Drottinn ydar Gud, sem leidde ydur af Egyptalande, ad eg gæfe ydur Canaans land, og være ydar Gud.

39. Ef þinn broder útarmast hiá þer, og ad hann selur sig sialfann þer, þá skalltu eigi láta hann þiona þer so sem einn æfenlegann þræl,

40. Helldur skal hann vera hiá þer sem einn gestur, eda daglaunamadur, og hann skal þiona þer til fagnadar-ársins,

41. Þá skal hann laus frá þer fara, og hans børn med hønum, og skal so koma aptur til sinnar ættar, og til sinna forfedra eignar,

42. Þvi þeir eru míner þionar, sem eg út færde af Egyptalande, þar fyrer skulu þeir eigi seliast sem eylífer þrælar.

43. Og þú skallt eigi hardlega Drottna yfer þeim, helldur skalltu hrædast þinn Gud.

44. Enn ef þú villt fá þer þræla edur ambátter, þá skalltu kaupa þau af heidingum, þeim sem eru í kringum ydur,

45. Af gestkomendum, sem eru framande á medal ydar, og af þeirra epterkomendum, sem þeir hafa fædt í ydru lande.

46. Þá sømu skulud þer hafa til eigendoms, og þer skulud bíhallda þeim, og ydar børn epter ydur, til eignar æfenlega, þá skulud þer láta vera æfenlega þræla. Enn yfer ydrum brædrum, Israels børnum, skal eingenn hardlega drottna yfer ødrum.

47. Þá nockur gestur, eda framande, verdur ríkur hiá þer, og þinn brodur útarmast hiá hønum, so ad hann selur sig þeim framanda, eda Utlenda, hiá þer, eda nockrum af hans ætt,

48. Þá skal hann, epter hans kaup, hafa rett til ad verda laus aptur,

49. Og þar má nockur af hans brædrum leysa hann, eda hans fødurbroder, eda hans brædrungur, eda einhver annar af hans nánustu frændum, eda gete hann so miked forþenad med sinne sialfs hende, þá skal hann leysa sia.

50. Og hann skal reikna vid þann sem hann keypte, frá þvi áre sem hann sellde sig á, allt til fagnadar ársins, og peningarner skulu reiknast, epter áratølunne, sem hann sellde sig á, og hann skal reikna sín dagleg laun þar med, um þann allann tíma.

51. Stande enn þá mørg ár epter inn til fagnadar ársins, þá skal hann þar epter gefa þess meira fyrer sína láusn, epter þvi sem hann er keyptur.

52. Enn seu þar fá ár epter til fagnadar-ársins, þá skal hann og þar epter aptur gefa ser til frelsis,

53. Og hann skal reikna sín dagleg laun þar í, ár frá áre, og þú skallt eigi streingelega láta drottna yfer hønum fyrer þínum augum.

54. Enn gete hann eige leyst sig med þessum hætte, þá skal hann

ganga frials út á þvi fagnadar áre, og hans børn med hønum.

55. Þviad Israels børn eru míner þenarar, sem eg leidde út af Egyptalande, eg em Drottinn ydar Gud.

1. Þer skulud eigi gera ydur afgude, eigi helldur bílæte, þer skulud eigi helldur uppreysa ydur nockra stolpa, eda setia merke-steina í ydru lande, ad þer tilbided þvi,

2. Þvi eg em Drottinn ydar Gud. Hallded mína hvíldardaga; hrædest fyrer mínum helgedomi, eg em Drottinn.

## 26. Capitule.

3. Ef þer ganged nú epter mínum setningum, og hallded mín bodord, og gered þau,

4. Þá vil eg gefa ydur regn á sínum tíma; jørdenn skal og gefa sinn gróda, og tren á mørkenne skulu bera sinn ávøxt,

5. Og þreskiunar tímenn skal vara allt til vínyrkiunnar, og vínyrkiann skal ná til kornsædis tímans, og þer skulud hafa gnogt brauds, og búa tryggelega í ydru lande,

6. Eg vil gefa frid í ydru lande, ad þer skulud meiga sofa, og engenn skal fæla ydur. Og eg vil í burtu taka þau skadsømu dyr af ydru lande, og þar skal eckert sverd ganga í gegnum ydar land.

7. Þer skulud ellta ydra óvine, og þeir skulu falla fyrer ydrum sverdum,

8. Fimm af ydur skulu ellta hundrad, og hundrad af ydur skulu ellta tíu þusunder, þviad ydrir óviner skulu falla under sverdi fyrer ydur.

9. Og eg vil snúa mer til ydar, og láta ydur vaxa, og ávaxtast, og eg vil stadfesta minn sáttmála vid ydur.

10. Og þer skulud eta af þvi enu gamla, og burtvarpa þvi gamla þegar þad nya kemur.

11. Eg vil búa á medal ydar, og mín sál skal eigi burt kasta ydur.

12. Eg vil ganga á millum ydar, og eg vil vera ydar Gud, so skulud þer verda mitt folk.

13. Þvi eg em Drottinn ydar Gud, sem leidde ydur af Egyptalande, ad þer skylldud eigi vera þeirra þrælar, og eg hefe sundurbrotED ydart ok, og láted ydur ganga retta.

14. Enn viled þer eigi hlyda mer, og eigi gera øll þesse bodord,

15. Og viled fyrerlíta mína setninga, og ydrar sáler utskufa mínum rettindum, so þer hallded eigi øll mín bodord, og gered ónytann minn sáttmála,

16. Þá vil eg gera ydur þetta: eg vil vitia ydar med hrædslu, kaunum, og kølldusyke, ad ydart andlit skal visna, og ydart líf vanmegnast. Þer skulud forgefins sá ydru sæde, og ydrer óviner skulu upp eta þad,

17. Og eg vil setia mitt auglit í gegn ydur, og þer skulud verda slegner af ydrum óvinum, og þeir sem ydur hata skulu drottna yfer ydur, og þer skulud flya þo eingenn ellte ydur.

18. Enn ef þer viled þá enn eigi, ofann á þad, hlyda mer, þá vil eg gera þad enn siø sinnum meira, ad refsa ydur, fyrer ydra synda saker,

19. So eg sundurbriote ydra hardudlega drambseme. Og eg vil láta himenenn verda ydur sem járn og ydra jørd sem kopar,

20. Og allt ydart omak og erfide skal vera til einskis, ad ydart land skal ei gefa sinn gródur, og tren í landenu skulu eigi bera sinn ávøxt.

21. Og ef þer þá enn ganged í gegn mer, og viled eigi hlyda mer,

þá vil eg enn gera þad sjöfallt meira, slá uppá ydur fyrer ydarra synda saker.

22. Og ég vil senda villudyr á medal ydar, þau skulu uppsvelgia ydar børn, og íhel rífa ydart fe, og fæcka ydur, og ydrir veiger skúlu verda í eyde.

23. Viled þer þá enn eigi þar med láta typta ydur af mer, helldur ganged í gegn mer,

24. Þá vil eg og ganga í gegn ydur, og slá ydur þá enn sjöfalldlega, fyrer ydra synda skulld,

25. Og leida eitt hefndar sverd yfer ydur, sem hefna skal míns sáttmála. Og ef þer safned ydur samann í ydrum stødum, þá vil eg samt senda drepsótt á medal ydar, og gefa ydur í ydra óvina hendur.

26. Þá vil eg fordiarfa ydar brauds nægter, so ad tíu kvinnur skulu baka ydart braud í einum ofne, og ydart braud skal vegast út med vigt, og nær þer eted skulud þer eigi verda metter.

27. Viled þer þá enn eigi med þessu hlyda mer, helldur ganga í gegn mer,

28. Þá vil eg ganga í gegn ydur í minne reide, og eg vil refsa ydur sjösinnum hardara fyrer ydar synder,

29. So þer skulud eta ydarra sona og ydarra dætra kiøt.

30. Og eg vil afmá ydar hæder, og upprickia ydrum bílætum, og eg vil kasta ydra líkami ofann á ydra afgude, og mín sál skal hafa vidbiód vid ydur,

31. Og eg vil eydeleggia ydra stade, og nidurbrióta ydrar helgedoms kyrkiur, og eg vil eigi luckta ydarn sætann ilm.

32. So vil eg eyda landed, ad ydrir oviner, sem búa í þvi, skulu hrædast þar vid.

33. Enn ydur vil eg burtdreifa, á medal heidingia, og útdraga sverdid bak epter ydur, ad ydart land verde í eyde, og ydrar borger skulu nidurbrjótast,

34. Þá skulu landenu þocknast síner sabbathsdagar, so leinge sem þad liggur í eyde, og þer erud í ydra óvina lande.

35. Já, þá skal landed hallda heilagt, og vel behaga sinn sabbath, alla þá stund þad liggur eyde, þar fyrer, ad þad kunne eigi ad hallda heilagt, þá þer áttud ad hallda heilagt, þá þer biúggud þar inne.

36. Og þá sem epter verda af ydur, þá vil gera so deighiartada, í þeirra óvinalande, ad eitt þiótande lauf skal ellta þá, og þeir skulu flya þar fyrer, líka sem eitt sverd ellte þá, og falla, þo eingenn ellte þá.

37. Og hver skal falla yfer þverann annann, líka sem fyrer sverdi, enn þo ad eingenn ellte þá. Og þer skulud eigi þora ad reisa ydur upp í móte ydrum óvinum,

38. Og þer skulud eydeleggiast medal heydingianna, og land ydra óvina skal uppsvelgia ydur.

39. Enn hverir sem þá lifa epter af ydur, þeir skulu vanmegnast í þeirra misgerningum, í þeirra óvina lande, og þeir skulu vanmegnast í þeirra fedra misgerningum.

40. Þá skulu þeir kannast vid sína misgerninga, og sinna forsedra misgerninga, med hverum þeir hafa syndgast ímote mer, og geinged ígegn mer.

41. Þar fyrer vil eg ganga ígegn þeim, og í burt reka þá í sinna óvina land, og þar skal þá þeirra óumskorna hiarta audmykia sig, og þá skal þeim vel þocknast þeirra misgerninga refsing.

42. Og eg vil minnast á minn

sáttmála vid Jacob, á minn sáttmála vid Isaac, og á minn sáttmála vid Abraham,

43. Og eg vil þeinkia á þad landid, sem af þeim er yfergefed, og hefir þocknan á sínum hvíldardøgum, þá stund ad þad liggur eyde fyrer þeim, og þeim skal behaga refsing sinna misgerninga, þvi þeir forsmádu mín rettinde, og þeirra sáler høfdu vitbiód á mínum setningum.

44. Og þo þeir seu í þeirra óvina løndum, þá hefe eg eigi helldur útskufad þeim, og hefe eigi helldur soddann vidbiod vid þeim, so sem þad skule vera útgert um þá, og minn sáttmále vid þá skyllde eigi framar gillda, þvi eg em Drottinn þeirra Gud.

45. Eg vil minnast á minn firsta sáttmála vid þá, þá eg færda þá af Egyptalande fyrer heidingianna augum, so eg væri þeirra Gud, og Drottinn.

46. Þessar eru þær skickaner, rettur, og løgmál, sem Drottinn gerde í millum sín, og Israels barna, á fiallenu Sinai, fyrer hønd Moses.

## 27. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala þú vid Israelis børn, og seig þú til þeirra: þá nockur gever Drottni eitt serligt heit, so hann leggur virding á sitt líf,

3. Þá skal þetta vera lausnenn, eins Manns personu, frá tvítugs alldre og inn til sextugs alldurs, skullt þú virda fyrer fimmtíu silfurs sikla, epter helgedomsins sikle.

4. Kvennmans personu fyrer þriátíu siklos.

5. Frá fimm árum, og til tuttugu ára, þá skalltu virda eins Manns personu fyrer tuttugu siklos, enn einnrar kvinnu personu fyrer tíu siklos.

6. Se nockur mánadar gamall, og inn til fimm ára, þá skalltu virda eins Manns personu fyrer fimm silfur siklos, og einnrar kvinnu personu fyrer þriá silfur siklos.

7. Enn se nockur sextíu ára gamall, og þadann af elldre, þá skalltu virda eins Manns personu fyrer fimmtan siklos, enn einnrar kvinnu personu fyrer tíu siklos.

8. Enn se hann of-fátækur til soddann virdingar, þá skal hann færa sig fyrer prestinn, og so skal presturenn virda hann, enn hann skal virda þann, epter þvi sem hann kann ad forþena med sinne hende, sem heitenu lofad hefir.

9. Enn se þad nockud kvikse sem Menn kunna ad offra Drottni, þá er þad allt heilagt sem Drottni er gefed.

10. Eigi skal byta þvi í burt, eda skipta um þad þvi enu góda fyrer annad vondt, eda vondt fyrer godt. Enn ef nockur byter einu fe í burt fyrer annad, þá skal þad hvortveggia helgast Drottni.

11. Enn se þad óhreint kvikse, þad sem Menn þora ei ad offra Drottni, þá skal færa þad fyrer prestinn,

12. Og presturenn skal virda þad, hvert þad er godt eda lett, og líka sem presturenn virder þad, þá skal þad so vera,

13. Enn vile nockur leysa þad, þá skal hann gefa þann fimta part meir enn þad er gert.

14. Ef nockur helgar sitt hús, ad þad skuli vera Drottni heilagt, þá skal presturenn virda þad, hvert þad er godt, eda illt, og líka sem presturenn virder þad, þá skal þad so vera.

15. Enn vile sá leysa þad aptur

sem þad hefir helgad, þá skal hann leggia þann fimmta part til, af peningunum, sem þad var virdt fyrer, so má þad verda hans.

16. Ef nockur helgar Drottni einn akur, af sínu erfda gotse, þá skal hann virdast þar epter, sem hann ber ávøxt til. Bere hann einn homor byggs, þá skal hann gillda fimmtíu silfur siklos.

17. Enn ef hann helgar sinn akur frá fagnadarins áre, þá skal hann gillda epter sínu verde,

18. Enn hafe hann helgad hann epter fagnadar áred, þá skal prestsurenn reikna epter þeim árum, sem epterstanda til fagnadar árfins, og virda hann þess mun minna.

19. Vile sá leysa akurenn aptur sem hann hefir helgad, þá skal hann leggia þann fimmta part yfer af peningum, framm yfer þad sem hann var virdtur fyrer, so má hann bíhallda hønum.

20. Enn vile hann eigi leysa hann, enn selur hann nockrum ødrum, þá skal hann eigi meir standa hønum til lausnar,

21. Helldur sá sami akur skal vera Drottni helgadur, nær hann verdur friáls á þvi fagnadar áre, líka sem einn akur, sem øldungis er helgadur, og skal verda prestsins erfda gots.

22. Enn ef nockur helgar Drottni einn akur, þann hann hefir keypt, og er eigi hans erfda gots,

23. Þá skal presturenn reikna hvad hann gillder, allt til fagnadar árfins, so skal hann á sama deige gefa þá virding, so hann se Drottni helgadur.

24. Enn á fagnadar árenu skal hann koma aptur til þess sem hann sellde, og vera hans erfda gots í landenu.

25. Øll virding skal ske epter helgedomsins sikle, enn einn siklus gerer tuttugu gera.

26. Firsta burd á medal ydars fenadar, sem Drottni tilheyrer þo ádur, þad skal eingenn Drottni helga, hvert þad er helldur naut eda sauder, þvi þad heyrer Drottni til.

27. Enn se þá nockud óhreint á fenadenum, þá skal Madur leysa þad epter sínu verde, og leggia þann fimmta part þar framm yfer. Vile hann eigi leysa þad, þá má þad seliast fyrer sitt verd.

28. Menn skulu ecke øldungis helgad selia edur leysa, þad nockur hefir endelega helgad Drottni, af øllu þvi sem hann á, hvert þad er helldur madur, fenadur, edur erfdar akur,

29. Þvi allt soddann bannfært gots er þad allra helgasta fyrer Drottni. Menn skulu og engann bannfærdann Mann leysa, helldur skal hann vissulega deya.

30. Allar tíunder í landenu, bæde af jardarennar gróda, og so af triánna ávexte, heyrer Drottni til, og skal vera Drottni helgad.

31. Enn vile nockur leysa sína tíund, þá skal hann gefa fimmta part þar yfer,

32. Og alla þá tíund af nautum og saudum, og þad sem gengur under vøndenn, þad skal vera ein heiløg tíund Drottins.

33. Eigi skal spyria ad þvi, hvert þad er godt eda vondt, og eigi helldur skipta þvi: enn se þvi bytt, þá skal hverttveggia vera heilagt, og eigi leysast.

34. Þesse eru þau bod, sem Drottinn baud Mose, til Israelis barna, á fiallenu Sinai.

Ender þeirrar þridiu bokar Moses.

# Fiorda Bok Moses.

## 1. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, í eydemørku Sinai, í samkundu-tialldbúdenne, á þeim firsta deige, í ødrum mánade, á ødru áre epter þad sem þeir voru útgeingner af Egyptalande, og sagde:

2. Reikned summu á manntale allrar Israels barna samkundu, epter þeirra kinkvíslum, og þeirra fedra húsum og nøfnum, allt karlkins, høfud fyrer høfud,

3. Frá tuttugu ára alldre, og þar fyrer ofann, alla þá sem fœrer eru til bardaga í Israel. Og þú og Aaron skulud telia þá epter sínum her,

4. Og þid skulud taka til yckar, iá, einn af hverre kinkvísl, til eins høfdingia yfer síns fødurs hús.

5. Þesse eru nøfn høfdingianna sem standa skulu hiá ydur. Af Ruben se Elizur, sonur Sedeur.

6. Af Simeon skal vera Selumiel, sonur Suri Sadai.

7. Af Juda skal vera Nahesson, son r Amminadab.

8. Af Isaschar skal vera Nethaneel, sonur Zuar,

9. Af Zebulon skal vera Eliab, sonur Helon.

10. Af Josephs børnum, af Ephraim skal vera Elisama, sonur Amihud. Af Manasse skal vera Gamliel, sonur Pedazur.

11. Af Benjamin skal vera Abidan, sonur Gideoni.

12. Af Dan skal vera Ahieser, sonur Ammi Sadai.

13. Af Asser skal vera Pagiel, sonur Ochran.

14. Af Gad skal vera Eliasaph, sonur Deguel.

15. Af Nephthali skal vera Ahira, sonur Enan.

16. Þesser eru þeir yppurstu af almuganum, høfuds Menn í ætt sinna fedra, sem voru høfudenn yfer þusund í Israel.

17. Og Moses og Aaron tóku þá til sín, so sem þeir voru nú nøfnum nefnder.

18. Þeir søfnudu líka øllum almuganum til samans, á þeim firsta deige í ødrum mánade, og reiknudu þá epter þeirra fœdingu, kine, epter þeirra fedra húse, og nøfnum, tvítuga, og þadann af elldre, høfud fyrer høfud,

19. Sem Drottinn hafde boded Mose, og þeir tøldu þá í eydemørku Sinai.

20. Børn Rubens Israelis frumgetna sonar, epter þeirra fœdingu, kinslód, þeirra fedra húse, og nøfnum, høfud fyrer høfud, aller karlmenn, tvítuger og þadann af elldre, þeir sem fœrer voru til stríds,

21. Voru reiknader til ættar Rubens, sex og fiórutíu þusunder, og fimm hundrud.

22. Børn Simeons epter þeirra fœdingu, kine, og þeirra fedra húse, tølu og nafne, høfud fyrer høfud, aller karlmenn, tvítuger, og þadann af elldre, sem fœrer voru til stríds,

23. Voru reiknader til Simeons ættar, niu og fimmtíu þusunder, og þriu hundrud.

24. Børn Gads epter þeirra fœdingu, kine, fedra húse og nafne, frá tuttugu árum, og þadann af elldre, sem fœrer voru til bardaga,

25. Voru reiknader til kins Gads, fimm og fióttíu þusunder, sex hundrud og fimmtíu.

26. Børn Juda epter þeirra fœdingu, kine, þeirra fedra húse, og

nafne, tvítuger, og þadannaf elldre, þeir sem færer voru til bardaga,

27. Voru reiknader til Judæ ættar, fiórar og siötíu þusunder, og sex hundrud.

28. Børn Isaschars epter þeirra fædingu, kine, þeirra fedra húse, og nøfnum, frá tuttugu árum, og þadannaf elldre, sem færer voru til bardaga,

29. Voru talder til kins Isaschars, fiórar og fimmtíu þusunder, og fiøgur hundrud.

30. Børn Sebulons epter þeirra fædingu, kine, þeirra fedra húse, og nøfnum, frá tuttugu árum, og þadann af elldre, sem færer voru til stríds,

31. Voru reiknader til Sebulons ættkvíslar, siø og fimmtíu þusunder, og fiøgur hundud.

32. Børn Josephs af Ephraim, epter þeirra fædingu, kine, þeirra fødurs húse, og nøfnum, frá tuttugu árum, og þadannaf elldre, sem færir voru til bardaga,

33. Reiknader til kins Ephraims, fiórutíu þusunder, og fimm hundrud.

34. Børn Manasse epter þeirra fædingu, kine, þeirra fedra huse, og nafne, frá tuttugu árum, og þadannaf elldre, sem færer voru til ftríds,

35. Voru talder til Manasse ættar, tolf og tuttugu þusunder, og tvøhundrud.

36. Børn Benjamins, epter þeirra fædingu, kine, þeirra fedra húsum, og nøfnum, tuttugu vetra, og þadann af elldre, þeir sem duganleger voru ad draga í stríd.

37. Voru reiknader í kin Benjamins, fimm og þriátíu þusunder, og fiøgur hundrud.

38. Børn Dans epter þeirra fædingu, kine, þeirra fedra húse, og nøfnum, tvítuger og þar yfer, þeir sem hrauster voru ad draga í stríd.

39. Voru talder í kin Dans, tvær og sextíu þusunder, og siø hundrud.

40. Børn Asser, epter þeirra fædingu, kine, þeirra fedra húse, og nøfnum, frá tuttugu árum, og þadann af elldre, sem dugleger voru ad draga í stríd,

41. Voru talder til kins Asser, ein og fiórutíge þusund, og fimm hundrud.

42. Børn Nephthali, epter þeirra fædingu, kine, þeirra fedra húse, og nøfnum, tvituger Menn, og þadann af elldre, sem duganleger voru ad draga í stríd,

43. Voru talder til kins Nephthali, þriár og fimmtíu þusunder, og fiøgur hundrud.

44. Þesser eru þeir, hvera Moses og Aaron reiknudu, med þeim tolf Israelis høfdingium, af hverium serhver þessara var yfer sinna fedra húse.

45. Og summa allra Israelis barna, epter þeirra fedra húse, frá tuttugu árum, og þadann af elldre, sem vopnfærer voru til bardaga, medal Israel,

46. Var sexsinnum hundrad þusund Manna, þriár þusunder, fimm hundrud og fimmtíu.

47. Enn Levitarner epter þeirra fedra ætt, voru eigi talder her med.

48. Þvi Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

49. Þú skallt eigi telia Levi ætt, og eigi reikna þeirra manntal á medal Israelis barna,

50. Helldur skalltu skicka þá til samkundu-tialldbúdarennar, og til allra hennar kera, og til alls hennar umbúnadar, og þeir skulu bera tialldbúdena, og allann þann umbúnad sem henne fylger, og þeir sku-

lu vakta þaruppá, og skulu setia sín tiølld kringum tialldbúdena.

51. Og þegar Menn eiga ad ferdast, þá skulu Levitarner taka tialldbúdena ofann; enn sem herenn setur sínar tialldbúder, þá skulu þeir reisa tialldbúdena upp. Og ef nockur framande kemur þar vid, þá skal hann deya.

52. Israels børn skulu leggia sig, serhver í sínum herbudum, og hiá merke síns skara.

53. Enn Levitarner skulu leggia sig í kringum samkundunnar tialldbud, so ad þar kome eigi nockur reide yfer almúgann Israelis barna, þvi skulu Levitarner hallda vørd hiá samkundu-tialldbúdenne.

54. Og Israels børn gerdu allt, so sem Drottinn hafde boded Mose.

## 2. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde:

2. Israels børn skulu reisa þeirra herbúder utan í kringum samkundu-tialldbúdena, hver under sínu merke og teikne, epter þeirra fedra husum.

3. Juda skal setia sínar herbúder fyrer austann framm, med sínu merke og her, þeirra høfuds madur Nahesson, sonur Amminadab,

4. Og hans her, sem er ad manntale siórar og siøtíu þusunder, og sex hundrud.

5. Nærst hønum skal Isaschars kinkvísl sínar herbúder reisa; þeirra høfuds Madur Nethaneel sonur Zuar,

6. Og hans her reiknadur siórar og fimmtíu þusunder, og fiøgur hundrud.

7. Þar nærst Sebulons ætt, þeirra høfuds Madur Eliab, sonur Helon.

8. Og hans reiknadur her siø og fimmtíger þusunder, og fiøgur hundrud.

9. So ad aller þeir, sem heyra til Juda herbúdum, eru í einnre summa, hundrad þusunder, og sex og áttatíu þusunder, og fiøgur hundrud, sem heyrer til þeirra her, og þeir skulu reisa fremster.

10. I sudur skal vera merke Rubens, og hans tialldbúd, med hans her, þeirra høfuds Madur Elizur, sonur Sedeur,

11. Og hans reiknadur her, sex og fiørutíu þusunder, og fimm hundrud.

12. Nærst hønum skal Simeons kinþáttur setia sínar herbúder, þeirra høfuds Madur Selumiel sonur Zuri Sadai,

13. Og hans reiknadur her, níu og fimmtíu þusunder, og þriu hundrud.

14. Þar nærst kin Gads, þeirra høfuds Madur Eliasaph, sonur Reguels,

15. Og hans reiknadur her er fimm og fiørutíu þusunder, sex hundrud og fimmtíu.

16. So ad aller þeir sem heyra til Rubens herbúdum, eru ad manntale reiknader hundrad þusund, og eitt og fimmtíu þusund, og fiøgur hundrud, og fimmtíu, sem heyrer til þeirra her, og þeir skulu reisa nærst þeim ødrum.

17. Þar nærst skal samkundutialldbúdenn fara, med Levitanna herbúdum, rett á medal herbúdanna, og allt epter þvi sem þeir leggia sig nidr, so skulu þeir og ferdast, hver í sínum stad, under sínu merke.

18. I vestur skulu Ephraims herbúder og merke liggia med sínum her, þeirra høfuds Madur skal vera Elisama sonur Amihud,

19. Og hans her er ad manntale fiørutíu þusunder og fimm hundrud.

20. Enn hiá hønum skal Manasse ætt leggia sig, þeirra høfuds Madur Gamliel sonur Pedazur,

21. Og hans reiknadur her, tvœr og þriátíu þusunder, og tvø hundrud.

22. Þar nærst Benjamins kinþáttur, þeirra høfuds Madur Abidan, sonur Gideoni,

23 Hans reiknadur her ad manntale, fimm og þriátíu þusunder, og fiøgur hundrud.

24. So ad aller þeir, sem heyra til Ephraims herbúdum, þeir eru saman reiknader epter manntale, hundrad og átta þusund, og eitt hundrad, þeir sem heyra til hans her, og þeir skulu vera í þridiu fylkingu þá þeir reisa.

25. Herbúder Dans og hans merke skal vera í nordur, med sínum her, þeirra høfuds Menn Ahieser sonur Ammi Sadai,

26. Hans reiknadur her, tvø og sextíu þusund, og siø hundrud.

27. Hiá hønum skal Assers kinþáttur leggia sig, þeirra høfuds Madur Pagiel sonur Ochran,

28. Hans reiknadur her, eitt og fiørutíu þusund, og fimm hundrud.

29. Þar nærst Nephthali ætt, þeirra høfudsmadur Ahira sonur Enan,

30. Hans reiknadur her, þriár og fimmtíu þusunder, og fiøgur hundrud,

31. So ad aller þeir sem heyra til herbudum Dans, eru reiknader hundrad þusund, siø og fimmtíu þusunder, og sex hundrud, og þeir skulu vera þeir enu seinustu, sem ad reisa út med þeirra merkium.

32. Þetta er manutalid allra Israelis barna, epter þeirra fedra húse, og herbúdum, med þeirra her, sex hundrud þusunda, þriár þusunder, fimm hundrud og fimmtíu.

33. Enn Levitarner voru eigi talder í þessu manntale, á medal Israelis barna, so sem Drottinn hafde bifalad Mose.

34. Og Israelis børn gerdu allt samann, so sem Drottinn hafde boded Mose, og settu herbúdernar under þeirra merke, og drogu út, hver í sínum kinþætte, epter þeirra fedra húse.

## 3. Capitule.

1. Þesse er kinþáttur Aarons og Moses, á þeim tíma er Drottinn talade vid Mosen, á Sinai fialle,

2. Og þesse eru nøfn Aarons sona. Sá frumgetni Nadab, þar nærst Abihu, Eleazar og Ithamar.

3. Þesse eru Aarons sona nøfn, sem smurder voru til kenuemanna, og þeirra hendur voru fylldar til prests embættis.

4. Enn Nadab og Abihu dóu fyrer Drottni, þá þeir offrudu annarlegum ellde fyrer Drottni, í eydemørku Sinai, og þeir høfdu enga syne. Enn Eleazar og Ithamar frømdu prests embætted med þeirra fødur Aaron.

5. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

6. Láttu Levi ætt koma framm, og skicka þú hana fyrer prestenn Aaron, ad þeir þione hønum,

7. Og take vara á hans og alls almúgans þionustu, fyrer samkundu-tialldbúdenne, og ad þeir taki vara á þionustu í tialldbúdenne,

8. Og ad gæta allra verkfæra í samkundu-tialldbúdenne, og hafe vakt á Israelis børnum, til ad þena í tialldbúdarennar þionustu.

9. Og þú skallt gefa Levitana Aarone, og sonum hans, þesser eru hønum aldeilis gefner af Israelis børnum,

10. Enn Aaron og hans sonu

skallt þú skicka til, ad þeir vakte upp á kennemanlegt embætte; ef þar gengur framande til, hann skal deya.

11. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

12. Siá, eg hefe teked Levitana medal Israels barna, í stadinn allra frumgetninga, sem ad opna sitt modur líf á medal Israels barna, so ad Levitarner skulu heyra mer til.

13. Þviad þeir firstu frumburder eru míner, sídann eg íhel sló alla frumburde í Egyptalande, þá helgade eg mer allann frumburd í Israel, ad þeir skyldu heyra mer til, bæde af mønnum, og fenade: eg em Drottinn.

14. Og Drottinn talade vid Mosen í eydemørku Sinai, og sagde:

15. Tel þú Levi børn, epter þeirra fedra húse, og kinþáttum, alla þá sem eru karlkins, eins mánadar gamler, og þar yfer.

16. Og so talde Moses þá epter ordrum Drottins, so sem hann hafde bifalad.

17. Og þesse voru nøfn Levi barna, Gerson, Kahath, Merari.

18. Enn Gersons barna nøfn, í þeirra kinþáttum, voru Libni og Simei.

19. Børn Kahaths í þeirra kinþáttum, voru Amram, Jezehar, Hebron og Usiel.

20. Børn Merari í sínum kinþáttum, voru Maheli og Musi, þetta eru Levitanna kinþætter, epter þeirra fedra heimkynne.

21. Þessar eru ætternar af Gerson, Libnitar og Simeitar,

22. Þeir sem talder voru siø þusund, og fimm hundrud, aller þeir sem voru af karlkine, eins mánadar gamler, og þadann af elldre.

23. Og sú sama Gersonita ætt skal vera bak vid tialldbúdena í vestur.

24. Eliasaph, son Laels, skal vera þeirra høfdinge.

25. Þeir skulu taka vara á samkundu-tialldbúdenne, sem er á tialldenu, og tialldbúdenne, og á þeirra skylu, á dúknum fyrer samkundu-tialldbúdardyrunum,

26. Og á helgne-tiolldunum til forgardsins, og á dúknum í forgardsins dyrum, sem gengur í kringum tialldbúdena, og í kringum alltared, á støgønum, og á øllu því, sem heyrer til þeirre þionustugerd.

27. Þessar eru ætter Kahaths, Amramitar, Jezeharitar, Hebronitar, og Usielitar,

28. Af karlkine, sem voru mánadar gamler, og þadann af elldre, ad tølu átta þusund, og sex hundrud, sem vara tóku á helgedomenum.

29. Og þeir skulu leggia sig á þeirre sydre sídu hiá tialldbúdenne.

30. Elizaphan, sonur Usiels, skal vera þeirra høfdinge.

31. Og þeir skulu vardveita ørkena, borded, kertastikuna, alltared, og þau verkfære, sem heyra til helgedomenum, ad gera þenustu med, og dúkana, og þad sem heyrer til þeirre þionustu.

32. Enn Eleazar, sonur Aarons prests, skal vera sá ellste yfer øllum Levitanna yfermønnum, yfer þeim sem eru skickader til ad vardveita helgedomenn.

33 Þessar eru Merari ætter, Mahelitar, og Musitar, sem voru ad tølu sex þusunder, og tvø hundrud,

34. Af øllu karlkine, mánadar gamler, og þadann af elldre.

35. Zuriel sonur Abihail skal vera þeirra høfdinge. Og þeir skulu leggia sig á nyrdre sídu vid tialldbúdena.

36. Og þeirra embætte skal vera, ad taka vara á fiølunum, og á staungunum, á stolpunum, og á fótunum til tialldbúdarennar, og á umbúnadinum sem heyrer til þeirre þionustu,

37. So og á stolpunum forgardsins, allt umkring, og á fótunum, og á hælunum, og so líka støgunum.

38. Enn Moses og Aaron og hans syner skulu setia þeirra landtiølld fyrer austan samkundu-tialldbúdena, so þeir meige takavara á helgedomenum, og á Israels børnum. Enn ef nockur framande kemur þar nær, þá skal hann deya.

39. Aller Levitarner, þeir sem Moses og Aaron høfdu taled, epter orde Drottins, af øllu kine, mánadar gamler, og þadann af elldre, í þeirra kinþáttum, voru tvær og tuttugu þusunder.

40. Og Drottinn sagde til Mosen: tel alla frumgetninga, þá sem eru karlkins, medal Israels barna, mánadar gamla, og þadann af elldre, og tak tølu þeirra nafna.

41. Og þú skallt fráskilia, mer til handa, sem er Drottinn, Levítana, í stadinn allra frumburda á medal Israels barna, og Levitanna fenad, í stadenn alls firsta frumburdar, medal Israels barna fenadar.

42. Og Moses talde, sem Drottinn baud hønum, alla frumburde á medal Israelis barna, og nøfnenn allra frumburda af karlkine, medal Israels barna,

43. Frá eins mánadar gømlum, og þadann af elldre, voru tvær og tuttugu þusunder, og tvø hundrud, og þrír og siøtíu í sinne summu.

44. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

45. Tak þú Levitana í stadinn allra frumgetinna medal Israels barna, og Levitanna fenad, fyrer þeirra fenad, so ad Levitarner heyre mer til, sem er Drottinn.

46. Enn þú skallt taka peninga til lausnar, fyrer þau tvø hundrud þriá og siøtíu, sem frumgetner eru af Israels børnum, sem eru yfer Levitanna tølu,

47. Fimm siklos fyrer hvert høfud, til lausnar, epter helgedomsins sikle (enn tuttugu gera gillda einn sikel.

48. Og þú skallt afhenda Aarone og hans sonum þá lausnar peninga fyrer þá sem so eru yfer tølunna.

49. So tók Moses lausnar peninga af þeim sem afhlaups voru framm yfer Levitanna tølu,

50. Af þeim frumgetnu Israelis børnum, þusund, þriú hundrud, og fimm og sextíu siklos, epter helgedomsins sikle,

51. Og hann gaf Aarone, og hans sonum þá, epter Drottins orde, sem Drottinn hafde bodeð Mose.

## 4. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde:

2. Tak þú summuna Kahaths barna, frá Levi børnum, epter þeirra ættlegg, og fedra-húse,

3. Þá sem eru þriátíu ára, og þadann af elldre, til fimmtugs alldurs, og alla þá sem duganleger eru ad draga í stríd, ad þeir þione í samkundu-tialldbúdenne.

4. Þetta skal vera embætte barna Kahaths, í samkundu-tialldbúdenne, sem er þad allrahelgasta.

5. Þá herenn svipter herbúdunum, þá skal Aaron og hans syner ganga inn, og ofann taka fortialldeð, og vefia í því ørkena vitnisbúrdarins,

6. Og leggia þekiuna af greifingia

ſkinnum þar yfer, og breida eina gula ábreidu þar ofann á, og leggia ſteingurnar þar til.

7. Og þeir ſkulu og ſo breida eina gula ábreidu yfer ſkodunar bordid, og leggia þar til føtinn, ſkeidernar, ſkálernar, og kønnurnar til ad ſkeinkia af og á, og þad hvers-daglega braud ſkal liggia þar hiá.

8. Og þeir ſkulu breida þar yfer eina dreyrrauda ábreidu, og þekia þad ſama med einu þake af greiſingia ſkinne, og ſetia ſteingurnar þar til.

9. So ſkulu þeir taka eina gula ábreidu, og ſveipa þar í kertaſtikuna, og lampana, lióſa ſøxinn, ſkaraklofana til ad ſløkva lióſinn, og øll vidſmiørs kerinn, ſem heyra til þienúſtugerdinne,

10. Og ſveipa einnre gulre ábreidu þarum, kringum þad alltſamann, af greiſingia ſkinne, og leggia þad uppá ſteingurnar.

11. So ſkulu þeir breida eina gula ábreidu yfer gull-alltarid, og hylia þad med einu þake af greiſingia ſkinne, og ſetia ſteingurnar þar til.

12. Þeir ſkulu ſveipa øll þau ker ſem þeir hafa til þionuſtunnar í helgedomenum, í einnre gulre ábreidu, og hylia þar yfer med greiſingia ſkinne, og leggia þad á ſteingurnar.

13. Þeir ſkulu og ſo klára øſkuna af alltarenu, og breida eina ſkarlats ábreidu þar yfer,

14. Og leggia øll verkfærenn þar til, ſem ad heyra til þeirre þionuſtu, elldpønnur, matkrøka, auſur, munnlaugar, med øllum alltaresins kerum, og þeir ſkulu breida eitt þak þar yfer, af greiſingia ſkinne, og ſetia ſteingurnar þar til.

15. Sem Aaron og hans ſyner hafa þetta fullgert, og þaked helgedomenn og allann hans umbúnad, þegar herenn ſvipter herbudunum, epter þad ſkulu børn Kahaths ganga inn, og bera þad, og þeir ſkulu eigi ſnerta helgedomenn, ſo þeir deye eigi. Þeſſar eru byrder barna Kahaths, í ſamkundu-tialldbudenne.

16. Og Eleáſar, ſonur Aarons preſts, ſkal ſtanda fyrer þvi embætte, og ſkicka oleum til ad lyſa med, og jurter til reykelſis, og þad daglega matoffur og ſmurningar oleum, ad hann ſiáe fyrer allre tialldbúdenne, og øllu þvi þar er inne í helgedomenum, og fyrer helgedomſins verkfærum.

17. Og Drottinn talade vid Moſen og Aaron, og ſagde:

18. Þer ſkulud eigi láta kinþátt Kahathitanna ættar fordiarfaſt, á medal Levitanna.

19. Enn þetta ſkulud þer gera þeim, ſo þeir meige lifa, enn eigi deya, ef þeir ſnerta þad allra helgaſta. Aaron og hans ſyner ſkulu ganga inn, og ſetia hverum ſitt embætte og byrde.

20. Enn þeir ſkulu eigi ganga inn av ſkoda helgedomenn óforþeinkter, ſo ad þeir deye eigi.

21. Og Drottinn talade vid Moſen, og ſagde:

22. Tak manntals ſummu af Gerſons børnum, epter þeirra fedra húſe, og ættum,

23. Frá þriátíu árum, og þadann af elldre, allt til fimmtugaſta árs, og ſkicka þeim øllum ſem duganleger eru ad draga í ſtríd, ad þeir hafe eitt embætte í ſamkundu-tiallbúdenne.

24. Enn þetta ſkal vera embætte þeirrar Gerſonita ættar, ad þiona og bera.

25. Þeir ſkulu bera langtiálld-

enn tialldbúdarennar, og samkundu-tiallded, og hennar þak, og þøkenn af greifingia skinnunum, sem þar eru utann um, og dúkenn í samkundu-tialldbúdar dyrunum, og langtiølldin a tialldbúdar gardsins, og dúkenn í portdyrunum forgardsins,

26. Þess sem er í kríngum tialldbúdena og alltarid, og þeirra støg, og øll þeirra embættis verkfære, og allt þad sem heyrer til þeirra embætte.

27. Børn Gersons skulu gera allt sitt embætte, epter Arons og hans sona ordum, med øllu þvi sem þeir skulu bera og gera. Og þeir skulu siá til, ad þeir take vara á øllum sínum byrdum.

28. Og þetta skal vera Gersonitanna barna, og ættar embætte, í samkundu-tialldbúdenne, og þeirra vardhalld skal vera under hende Ithamar sonar Aróns prests.

29. Þú skallt og skicka Merari børnum, epter þeirra kinþáttum og fedra húse,

30. Frá þriátíu árum, og þar yfer, til simmtíu ára, øllum þeim sem duganleger eru ad draga í stríd, ad þeir hafe eitt embætte í samkundu-tialldbúdenne,

31. Enn þeir skulu taka vara uppá þessare byrde, epter øllu þeirra embætte í samkundu-tialldbúdenne, ad þeir bere fialernar, steingurnar og stolpana, og fæturnar til tialldbúdarennar,

32. So og stolpana til tialldbúdar gárdsins allt umkring, og so fæturnar, og hælana, og støginn, med øllum sínum verkfærum, epter øllu þeirra embætte. Þer skulud skipa til hverum sinn part á byrdunum, til ad taka vara uppá þeim sømu verkfærum.

33. Þetta skal vera embætte Merari barna ættar, allt þad sem þeir skulu gera í samkundu-tialldbúdenne, under hende Ithamar sonar Arons prests.

34. Og Moses og Aaron og høfdingiar almugans tøldu Kahathitanna børn, epter þeirra kinþáttum og fedra húse,

35. Príttuga, og þadann af elldre, inn til simmtíu ára, alla sem duganleger voru ad draga í stríd, ad þeir skylldu hafa embætte í samkundu-tialldbúdenne,

36. Og þeir reiknudust tvær þusunder, siø hundrud, og simmtíu.

37. Þetta er manntal Kahathitanna ættar, sem høfdu aller nockud ad þióna, í samkundu-tialldbúdenne, hvera Moses og Aaron tøldu epter Drottins orde fyrer Mosen.

38. Gersons børn voru og so talenn í þeirra kinkvíslum, og fedra husum,

39. Frá þriátíu ára gømlum, og þar yfer, til simmtugs aldurs, aller, þeir sem duganleger voru í stríd, ad þeir skylldu hafa embætte í samkundu-tialldbúdenne,

40. Og þeirra manntal var tvær þusunder sex hundrud og þriátíu.

41. Þad er talann á ætt Gersons barna, hverer aller høfdu nockud ad þióna í samkundu-tialldbúdenne, hvera Moses og Aaron tøldu epter orde Drottins.

42. Merari børn voru og so talenn, epter þeirra ættum og fedra húsum,

43. Frá þriátíu árum og þar yfer, til simmtugs aldurs, aller þeir sem duganleger voru til stríds, ad þeir skylldu hafa embætte í samkundu-tialldbúdenne,

44. Og summann var þriár þusunder og tvø hundrud.

45. Þetta er summann á Merari

barna ætt, sem Moses og Aaron tøldu, epter ordum Drottins fyrer Mosen.

46. Manntalsins summa allra Levitanna, sem Moses og Aaron, med Israels høfdingium tøldu epter þeirra kinþáttum, og fedra husum,

47. Frá þriátíu árum og þar yfer, inn til fimmtugs alldurs, sem aller gengu inn ad gera hver sitt embætte, og bera byrdir í samkundunnar-tialldbúd,

48. Voru áttu þusunder, fimmhundrud og átta tíu,

49. Hverer talder voru epter Drottins ordum fyrer Mosen, hver til síns embættis og byrdar, sem Drottinn hafde boded Mose.

## 5. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Biod þú Israels børnum, ad þau láte út af herbúdunum alla spitelska Menn, og alla þá sem hafa afrás, og þá sem eru óhreiner ordner af nockru daudulíke, bæde Menn og kvinnur, þá skulud þer láta út fyrer herbúdernar,

3. So þeir saurge eigi þeirra herbúder, í hverum eg by á medal þeirra,

4. Og Israels børn gerdu so, og letu þá út fyrer herbúdernar, sem Drottinn hafde boded Mose.

5. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

6. Tala þú til Israelis barna, og seig þu til þeirra, þegar nockur Madur, eda kvinna, gerer nockora synd í móte einnre manneskiu, og syndgast þar med í móte Drottni, þá er sú sál søkud.

7. Og þeir skulu játa sína synd, þá sem þeir hafa gert, og þeir skulu forlíka sína skulld med høfuds summunne, og skal yfer leggia þann fimmta part til, og gefa hønum sem þeir hafa á móte syndgad.

8. Enn se þar eingenn sem þann bitalina eigi ad medtaka, þá skal þad gefast Drottni, fyrer prestinn, ad undannteknum þeim forlíkunar hrút, med hverum hann verdur forlíktur.

9. So skal og hvert upplyptingar offur, af øllu þvi sem Israels børn helga og offra prestenum, heyrá hønum til,

10. Og ef nockur helgar nockud, þá skal þad og heyra hønum til, og ef nockur gefur prestenum nockud, þá skal þad og so heyra hønum til.

11. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

12. Tala þú vid Israelis børn, og seig til þeirra: ef nockus Manns eiginnkvinna hleyppur burt frá sínum Manne, og misgerer vid hann,

13. Og einhver liggur med henne, enn er þo huled fyrer Mannsins augum, og er duled fyrer hønum, ad hún se saurgud, og hann getur eigi bivíísad þad uppá hana, þvi hún er eigi stadenn ad verkenu,

14. Og vandlætingar ande uppstendrar Mannenn, so ad hann vandlæter um sína kvinnu, hvert sem hún er hrein eda óhrein.

15. Þá skal hann leida hana til prestsins, og gera eitt offur fyrer henne, einn tíunda part af Epha byggmiøls, og ríde þar engo oleo á, eigi helldur leggi reykelse þar uppá, þvi þad er eitt vandlætis offur, og áminningar offur, sem minner á misgerningenn.

16. Sídan skal presturenn hafa hana framm, og leida hana fyrer Drottinn,

17. Og hann skal taka af þvi helga vatne í einu leirkere, og dupt

af golfe tialldbúdarennar, og kasta í vatned.

18. Og hann skal leida kvinnuna fyrer Drottinn, og gera bert hennar høfud, og leggia minningar-offred, sem er eitt vandlætis offur, uppá hennar hønd. Og presturenn skal hafa beiskt bølvad vatn í sinne hende,

19. Og hann skal særa kvinnuna, og seigia til hennar, hafe eingenn Madur leiged med þer, og ertu eigi hlaupenn frá þínum Manne, ad þú hefir saurgad þig, þá skal þetta beiska bølvada vatn eigi skada þig.

20. Enn sertu hlaupenn frá þínum Manne, ad þú ert saurug, og hafe nockur Madur leiged med þer, annar enn þinn Madur.

21. Þá skal presturenn særa kvinnuna, med einnre þvilíkre særingu, og seigia til hennar: Drottinn sete þig til bølvanar og til eins eids á medal þíns folks, so ad Drottinn láte þinar lendar upp visná, og þinn kvid upp bolgna.

22. So gange nú þetta bølvada vatn í þinn kvid, so ad þinn kvidur bólgne, og þínar lendar visne. Og konann skal seigia, amen! amen.

23. Sídan skal presturenn skrifa þessa bølvan uppá eitt blad, og þvo þad af med þvi beiska vatne,

24. Og skal gefa konunne af þvi beiska og bølvada vatne, ad drecka. Og sem þad beiska og bølvada vatn er komed í hana,

25. Þá skal presturenn taka þad vandlætis offur af hennar hende, og veyfa þvi fyrer Drottni til eins matoffurs, og offra þvi á alltarenu, sem er,

26. Hann skal taka eina hønd fulla af matoffre til hennar áminningar offurs, og upptendra þad á alltarenu, og epter þad gefi hann konunne vatned ad drecka.

27. Og sem hún hefir drucked vatned, se hún þá óhrein, og hafe misgert í móte sínum Manne, þá skal þad bølvada vatn fara í hana, og vera henne beiskt, so ad hennar kvidur upp bólgne, og hennar lendar visne, og sú kona skal vera bølvan á medal síns folks.

28. Enn se sú kvinna eigi óhrein, helldur hrein, þá skal þad eigi skada hana, so hún meige verda friosøm.

29. Þetta er vandlætis løgmál, nær einn kvinna hleypur frá sínum Manne, og verdur óhrein.

30. Eda ef einn vandlætingar ande upp kveiker Mannenn, ad hann vandlæter um sína kvinnu, so hann leider hana fyrer Drottinn, og presturenn gerer henne allt þetta epter þessum løgum.

31. So skal Madurenn vera saklaus í þeim misgerninge, enn konann bere sinn misgerning.

## 6. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala þú til Israels barna, og seig þú til þeirra, nær ad nockur Madur, eda kvinna gerer Drottni serlegt heit ad hallda bindende,

3. Sá skal hallda sig frá víne og sterkum drick, hann skal og eigi drecka vín edik, eda edik af ødrum sterkum dricki, og eigi neitt þad sem gert er af vínberum; hann skal hverke eta ferskt ne þurr vínber,

4. So leinge sem foddann hans heit stendur yfer, hann skal eigi eta þad sem gert er af vínvide, hverke rusinn, kiarnann, ne børkenn.

5. Allann þann tíma sem foddann hans heit varer, þá skal eingenn hárknífur koma á hans høfud, fyrr enn tímenn er úte, sá hann lofade Drottni, þvi hann er heilagur,

og skal láta sitt hár med frelse vaxa á sinu høfde.

6. Allann þann tíma sem hann het Drottni þessu bindinde, þá skal hann eigi inn ganga til nockurs frammlidins.

7. Hann skal og eigi helldur saurga sig á líke sins føðurs, modur, broðurs, eda sinnar systur, þvi heitstreinging hans Guds er yfer hans høfde,

8. Og allann þann tíma sem háns heitstreinging varer, skal hann vera Drottni helgadur.

9. Og ef nockur deyr hiá hønum oforvarandis brádlega, þá verdur hans høfud saurugt í hans heite, þar fyrer skal hann raka sitt høfud á þeim deige sem hann hreinsast, þad er sá siøunde dagur.

10. Og á þeim áttunda deige skal hann bera tvær turtildúfur, eda tvær ungar dúfur til prestsins, fyrer samkundu-tialldbúdardyrnar.

11. Og presturenn skal gera þá adra til einnrar syndafórnar, enn adra til brennefórnar, og forlíka hann fyrer þad, ad hann gerde sig óhreinann, á þvi dauda líki,

12. Og helge so sitt høfud þann sama dag, so hann kunne ad hallda Drottni ut sinn heitstreingingar tíma, og hann skal leida eitt ársgamallt lamb framm, til eins skulldaoffurs. Og þeir umlidnu dagar skulu vera forgefins, søkum þess, ad hans heit saurgadest.

13. Þetta er løgmál hans sem nockud heit hefir samed, þegar hans heitlofunar tíme er úte, þá skal hann leidast fyrer samkundu-tialldbúdarennardyr,

14. Og hann skal bera sitt offur framm fyrer Drottinn, eins árs gamallt lamb til brenneoffurs, lyta laust, og einn veturgamlann saud án lyta til eins syndaoffurs, og einn hrút án lyta til eins þackaroffurs.

15. Og eina kørf med ósyrdar køkur, af hveite miøle, meingad med oleo, og ósyrda leifa yferriodada med oleo, og þeirra matoffur og dryckiaroffur.

16. Og presturenn skal bera þad framm fyrer Drottinn, og gera hans syndaforn, og hans brenneforn.

17. Og hrútenn skal hann færa til einnrar þacklætis-fórnar fyrer Drottni, og kørfena med þvi ósyrda braude, og hann skal og so gera hans mat-offur, og dryckiaroffur.

18. Og hann skal raka sitt høfud sem heitenu het úti fyter samkundu-tialldbúdarennar dyrum, þá heited er úte. Og hann skal taka síns heitis høfud-hár, og kasta þeim á elldenn sem er under þacklætis offrenu.

19. Og hann skal taka þann sodna bóg af hrútnum, og eina ósyrda køku af kørfenne, og einu ósyrdann leif, og leggia þad á hans hendur, sem heitenu het, epter þad hann hefir rakad sitt hár af,

20. Og hann skal veyfa þvi fyrer Drottni, þad er prestenum helgad med veyfunar bringunne, og upplyptingar bognum, þar epter má sá, sem heited gerde, drecka vín.

21. Þetta er løgmáled um þann sem gerde heited, og lofade Drottni sínu offre, vegna síns heitis, fyrer utann þad hann annars getur af stad komed; so sem hann hefir heited, skal hann gera epter løgmále síns heitis.

22. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde;

23. Tala þú til Arons og hans sona, og seig þú: so skulud þer seigia til Israels barna, þá þer blessed þau.

24. Drottinn blesse þig og vardveite þig.

25. Drottinn láte sína ásiónu lysa yfer þig, og se þer náðugur.

26. Drottinn hefe-sitt auglite yfer þig, og gefe þer frid.

27. Þvi þer skulud leggia mitt nafn yfer Israels børn, ad eg blesse þau.

## 7. Capitule.

1. Þá Moses hafde uppreist tialldbúdena, smurt hana, og helgad, og øll hennar ker, og so smurt og helgad alltared med øllum sínum kerum,

2. Þá offrudu Israelis høfdingar, þeir sem høfudenn voru í þeirra fedra húse, þvi þeir voru þeir enu ypperstu á medal kinþáttanna, og stódu firster á medal þeirra sem talder voru.

3. Og þeir báru sitt offur framm fyrer Drottinn, sex yfer-hulda vagna, og tolf uxa, iá einn vagn fyrer tvo høfdingia, og einn uxa fyrer hvern af þeim, og þeir færdu þá fyrer tialldbúdena.

4. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

5. Medtak þú þad af þeim, so þad meige þena til þionustugerdar, í samkundu-tialldbúdenne, og gef þad Levitunum, serhverum epter sínu embætte.

6. Þá tók Moses vagnana og uxana, og gaf Levitunum þá.

7. Og hann gaf børnum Gersons tvo vagna, og fiora uxa, epter þeirra embætte,

8. Og hann gaf børnum Merari fiora vagna, og átta uxa, epter þeirra embætte, under Ithamar Aarons prests sonar hende.

9. Enn hann gaf børnum Kahaths ecke rt, fyrer þvi, ad þeir høfdu eitt heilagt embætte á ser, og urdu ad bera á sínum ørlum.

10. Og høfdingiarner offrudu til alltaresins vígslu, á þeim deige sem þad var vígt, og offrudu þeirra gáfum fyrer alltarinu.

11. Og Drottinn sagde til Mosen, láttu serhveru høfdingianna færa sitt offur framm, á sínum deige, til alltaresins vígslu.

12. A firsta deige offrade Nahesson sonur Amminadab, af ætt Juda, sinne gáfu.

13. Og hans gáfa var eitt silfurfat, hundrad og þriátíu sikla verdt, ein silfur skál, siøtíu sikla verd, epter helgedomsins sikle, hvertveggia fullt hveitemiøls, meingad med oleo til eins matoffurs.

14. Þar til ein gullskeid, tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

15. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt lamb árs gamallt til brenneoffurs,

16. Einn kiarnhafur til syndaoffurs.

17. Og tveir uxar til eins þackaroffurs, fimm hrútar, fimm kiarnhafrar, og fimm lømb árs gømul. Þetta er gáfa Nahesson, sonar Amminadab.

18. A ødrum deige offrade Nethaneel sonur Zuar, høfdinge Isaschars barna.

19. Hans gáfa var eitt silfurfat, hundrad og þriátíu sikla verd, ein silfurskál siøtíu sikla verd, epter helgedomsins sikle, hvertveggia fullt hveitemiølls, meingad med oleo til eins matoffurs.

20. Þar til ein gullskeid, tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

21. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt lamb árs gamallt til brenne-offurs,

22. Einn kiarnhafur til syndaoffurs.

23. Og tvo uxa til þackar-offurs, fimm hruta, fimm kiarnhafra, og fimm lømb árs gømul. Þetta er gáfa Nethaneel, sonar Zuar.

24. A þridia deigi offrade Eliab sonur Helon, høfdinge yfer børnum Zebulons.

25. Hans gáfa var einn silfurdiskur hundrad og þriátíu sikla verdur, ein silfur skál, siøtíu sikla verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls blandad med oleo til eins matoffurs.

26. Ein gullskeid tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

27. Einn uxe af nautum, einn hrútur, og eitt lamb árs gamallt til brennefórnar.

28. Einn kiarnhafur til syndaoffurs.

29. Og tveir uxar til þack-offurs, fimm hruta, fimm kiarnhafra, og fimm lømb árs gømul. Þesse er gáfa sonar Helons.

30. Enn fiorda dag offrade Elizur, sonur Sedeur, høfdingenn fyrer børnum Rubens.

31. Hans gáfa var einn silfur diskur hundrad og þriátíu sikla verdur, ein silfur skál siøtíu sikla verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls, blandad med oleo til matoffurs.

32. Ein gullskeid, tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

33. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt árs gamallt lamb til brenneoffurs.

34. Einn kiarnhafur til syndaoffurs.

35. Og tveir uxar til eins þackaroffurs, fimm hrútar, fimm kiarnhafrar, og fimm lømbs árs gømul. Þetta er gáfa Elizurs, sonar Sedeur.

36. Enn fimmta dag offrade Selumiel sonur Zuri Sadai, høfdingenn fyrer børnum Simeonis.

37. Hans gáfa var einn silfurdiskur, hundrad og þriátíu sikla verdur, ein silfurskál siøtíu sikla verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls, blandad med oleo til matoffurs.

38. Ein gullskeid tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

39. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt árs gamallt lamb til brennefórnar,

40. Einn geit-hafur til syndaoffurs.

41. Og tveir uxar til þackar-offurs, fimm hrútar, kiarnhafrar fimm og fimm lømb árs gømul. Og þesse er gáfa Selumiels sonar Zuri Sadai.

42. A siøtta deige offrade Eliasaph sonur Deguels, høfdinge yfer børnum Gads.

43. Hans gáfa var einn silfurdiskur, hundrad og þriátíu sikla verdur, ein silfurskál siøtíu sikla verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls, blandad med oleo til matoffurs.

44. Ein gullskeid tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

45. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt árs gamallt lamb til brennefórnar,

46. Einn geithafur til syndaoffurs.

47. Og tveir uxar til þackar-offurs, fimm hrútar, fimm geithafrar, og fimm lømb árs gømul. Og þesse er gáfa Eliasaphs sonar Deguels.

48. Enn siøunda dag offrade Elisama, sonur Amihud, høfdingenn yfer Ephraims børnum.

49. Hans gáfa var einn silfurdiskur, hundrad og þriátíu sikla verdur, ein silfur skál siøtíu sikla verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls blandad med oleo, til matoffurs.

50. Ein gullskeid, tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

51. Einn uxe af fenadenum, einn hrútur, eitt árs gamallt lamb til brenneoffurs,

52. Einn geithafur til syndaoffurs.

53.Og tveir uxar til þack-offurs, fimm hrutar, fimm kiarnhafrar, fimm lømb árs gømul. Þesse er gáfa Elisama sonar Amihud

54.A attunda deige offrade Gamliel sonur Pedazur, høfdinge yfer Manasse børnum.

55.Hans gáfa var einn silfurdiskur hundrad og þriátíu sikla verdur, ein silfurskál siøtíu sikla verd epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls, blandad med oleo til matoffurs.

56. Ein gullskeid tíu sikla gulls verd, full af reykelse.

57. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, árs gamallt lamb til brennefórnar,

58. Einn geithafur til synda-offurs.

59.Og tveir uxar til þackar-offurs, fimm hrútar, kiarnhafrar fimm, og fimm lømb árs gømul. Þetta er gáfa Gamliels sonar Pedazur.

60.Þann níunda dag offrade Abidan sonur Gideonis, høfdingenn fyrer børnum Benjamins.

61.Hans gáfa var einn silfurdisk ur, hundrad og þriátíu siklos verdur, ein silfurskál siøtíu siklos verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls blandad med oleo til matoffurs.

62. Ein gullskeid tíu siklos gulls verd, full af reykelse.

63. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt árs gamallt lamb til brenneoffurs,

64. Einn geithafur til synda-offurs.

65. Og tveir uxar til þackar-off urs, fimm hrutar, fimm kiarnhafrar, fimm lømb árs gømul. Og þetta er nú gáfa Abidans, sonar Gideonis.

66. Tíunda dag offrade Ahieser, sonur Ammi Sadai, høfdinge fyrer børnum Dans.

67.Hans gáfa var einn silfurdiskur, hundrad og þriátíu siklos verdur, ein silfur skál, siøtíu siklos verd epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls, blandad med oleo til matoffurs.

68. Ein gullskeid tíu siklos gulls verd, full af reykelse.

69. Einn uxe af nautunum, einn hrutur, eitt árs gamallt lamb til brenneoffurs,

70. Einn geithafur til synda-offurs.

71. Og tveir uxar til þackar-offurs, fimm hrútar, fimm kiarnhafrar, fimm lømb árs gømol. Og þetta er nu gáfa Ahiesers, sonar Ammi Sadai.

72.Þann ellefta dag offrade Pagiel, sonur Ochrans, høfdingenn fyrer børnum Assers.

73.Hans gáfa var einn silfurdiskur, hundrad og þriátíu siklos verdur, ein silfurskál siøtíu siklos verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls, blandad med oleo, til matoffurs.

74. Ein gullskeid tíu siklos gulls verd, full af reykelse.

75.Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt árs gamallt lamb til brenneoffurs,

76. Einn geithafur til synda-offurs.

77. Og tveir uxar til þackar-offurs, fimm hrutar, fimm kiarnhafrar, fimm lømb árs gømul. Og þetta er nú gáfa Pagiels sonar Ochrans.

78. Þann tolfta dag offrade Ahira sonur Enan, høfdinge fyrer børnum Naphthali.

79.Hans gáfa var einn silfurdiskur hundrad og þriátíu siklos verdur, ein sifurskál siøtíu siklos verd, epter helgedomsins sikle, hverttveggia fullt hveitemiøls, blandad med oleo til eins matoffurs.

80. Ein gullskeid tíu siklos gulls verd, full af reykelse.

81. Einn uxe af nautunum, einn hrútur, eitt árs gamallt lamb til brenneoffurs,

82. Einn geithafur til synda-offurs.

83. Og tveir uxar til þackoffurs, fimm hrútar, fimm kiarnhafrar, fimm lømb árs gømul. Og þetta er gáfa Ahira sonar Enans.

84. Þetta er alltaresins vígsla, þann tíma þá það var vígt, til hvers ad Israels høfdingiar offrudu þessa tolf silfurdiska, tolf silfurskáler, tolf gullskeider.

85. So ad hver diskur vog hundrad og þriátíu siklos silfurs, og hver ein skál siøtíu siklos. So ad summann alls silfursins af þessum kerum var tvø þusund, og fiøgur hundrud siklar, epter helgedomsins sikle.

86. Og þær tolf gullskeider fullar af reykelse, og hellt serhver tíu siklos, epter helgedomsins sikle, so ad summann gullsins í skeidunum var hundrad og tuttugu sikli.

87. Talann á uxunum til brenneoffursins var tolf uxar, tolf hrútar, tolf lømb árs gømul med þeirra matoffre, og tolf geithafrar til syndaoffurs.

88. Og summann á uxunum til þackoffursins voru siórer og tuttugu uxar, sextíu hrútar, sextíu kiarnhafrar, sextíu lømb árs gømul, þetta var alltaresins vígsla, þá það var vígt.

89. Og þá Moses geck inn í samkundu-tialldbúdena, ad vid hann yrde talad, þá heyrde hann rødd-dina tala vid sig, af nádarstolnum, sem var ofann á vitnisburdarins ørk, í millum þeirra tveggia Cherubim, þadann var talad vid hann.

## 8. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala þú vid Aaron, og seigdu til hans: þá þú setur lampana upp, þá skalltu so setia þá, ad þeir lyse aller siø tillíka framan til á lióssastikunne.

3. Og Aaron gerde so, og sette lampana ad lysa framanverdt fyrer lióssastikunne, sem Drottinn hafde bífalad Mose.

4. Lióssastikann var af þettu gulle, bæde stiakenn sialfur, og blomsturenn, epter þeirre líking, sem Drottinn hafde syndt Mose, so gerde hann lióssastikuna.

5. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

6. Tak þú Levitana burt frá Israelis børnum, og hreinsa þá.

7. Enn so skalltu fara ad hreinsa þá: þú skallt støckva synda vatnenu á þá, og þeir skulu raka ølldungis sitt hár af, og þvo sín klæde, so eru þeir hreiner.

8. Þá skulu þeir taka einn ungann uxa, og hans mat-offur, hveitemiøl blandad med oleo. Og þú skallt taka einn annann ungann uxa til synda-offurs.

9. Og þú skallt leida Levitana fyrer samkundu-tialldbúdena, og samansafna øllum almúganum Israels barna,

10. Og leida Levitana fyrer Drottinn. Og Israels børn skulu leggia sínar hendur yfer Levitana.

11. Og Aaron skal veyfa Levitunum af Israels børnum til veyfunar-offurs fyrer Drottni, so þeir meige þiona í embættenu fyrer Drottni.

12. Þá skulu Levitarner leggia sínar hendur uppá uxanna høfud, og skal eine skal gerast til syndaoff-

urs, enn annar til brennefórnar fyrer Drottni, til einnrar forlíkunar fyrer Levitana.

13. Og þú skallt skicka Levitana framm fyrer Aaron og hans syne, og veyfa þeim til veyfunar-offurs fyrer Drottni,

14. Og skilia þá so frá Israelis børnum, ad þeir seu míner.

15. Þvi nærst skulu þeir ganga inn, og þiona í samkundu-tialldbúdenne. So skalltu hreinsa þá og veyfa þeim,

16. Þvi þeir eru mer gefner af Israels børnum, og eg hefe þá til mín teked, fyrer allt þad sem opnar finnar modur-kvid, sem er fyrer þá frumgetnu af øllum Israels børnum.

17. Þvi aller frumburder á medal Israels barna heyra mer til, bæde af mønnum og fenade, sídann þá tíd eg sló shel alla frumburde á Egyptalande, og helgade þá mer,

18. Og tók Levitana til mín, fyrer alla frumburde á medal Israels barna,

19. Og eg gaf Aarone og hans sonum þá af Israels børnum, til eins skeinks, so þeir skylldu þiona í Israels barna embætte, í samkundu-tialldbúdenne, til ad gera forlíkun fyrer Israels børn, so ad þar se eingenn plága á medal Israelis barna, ef þeir vilia koma nær helgedomenum.

20. Og Moses med Aarone, ásamt øllum almúga af Israels børnum, breittu í øllum hlutum vid Levitana, so sem Drottinn hafde boded Mose.

21. Og Levitarner hreinsudu sig, og þvodu sín klæde, og Aaron veyfade þeim fyrer Drottni, og forlíkte þá, so þeir urdu hreiner.

22. Og epter þad geingu þeir inn, ad fremia sitt embætte í samkundu-tialldbúdenne, fyrer Aarone og hans sonum, so sem Drottinn hafde bífalad Mose yfer Levitunum, so gerdu þeir vid þá.

23. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

24. Þetta er þad sem Levitunum ber ad gera, frá þvi þeir eru fimm og tuttugu ára, og þadann af eru þeir duganleger ad draga í stríd, og þiona í samkundu-tialldbúdenne.

25. Enn frá fimmtugasta áre skulu þeir vera frialser frá síns embættis þionustu, og skulu eigi framar þiona,

26. Helldur taka vara á þeirra brædra þionustu, í samkundu-tialldbúdenne, enn þeir skulu eigi annast embættid. So skalltu breita vid Levitana, so hver vakte sitt vardhalld.

## 9. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen í eydemørku Sinai, á ødru áre epter þad þeir voru út farner af Egyptalande, á þeim firsta mánade, og sagde:

2. Lát Israels børn hallda páska á sínum tíma,

3. Þann fiortanda dag í þessum mánade, mót aptne, skulu þeir þá hallda á sínum tíma, epter allre sinne skickan og rette,

4. Og Moses talade vid Israels børn ad þau skylldu hallda páska.

5. Og þeir hélldu páska þann fiortanda dag, í þeim firsta mánade, móte kvøllde, í eydémørku Sinai, og Israels børn gerdu allt þad sem Drottinn hafde boded Mose.

6. Þá voru þar nockrer Menn sem saurgast høfdu af frammlidnum Manne, so þeir gátu eigi hallded páskana, á þeim deige, þeir geingu fyrer Mosen, og Aaron, þann sama dag,

7. Og sǫgdu, ver erum óhreiner af frammlidnum Manne, þvi skulum ver þar fyrer vera minne háttar, ad ver meigum eigi bera vorar gáfur inn fyret Drottinn, á sínum tíma, á medal Israels barna?

8. Enn Moses sagde til þeirra: hafed bidlund, eg vil heyra hvad Drottinn bydur ydur.

9. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde: tala þú til Israels barna, og seigdu:

10. Þegar ad nockur saurgast af einum frammlidnum, eda er í fiarska vid ydur á sinne reisu, eda á medal ydra ættmanna, sa sami skal líka vel hallda Drottni páska.

11. Enn þo á þann fiortanda dag í þeim ǫdrum mánade, á móte kvǫllde, og skal eta þad med ósyrdu braude og sallte,

12. Og láta þar eigi neitt af leyfast til annars morguns, og eingi bein skulu þeir brióta í þvi, og þeir skulu hallda þad í allann máta so sem Menn plaga páska ad hallda.

13. Enn hver hann er hreinn, og er ei á sinne reisu, og yfergaf ad hallda páskana, hans sál skal afmást frá hans folke, sokum þess, ad hann hefir eigi fært Drottne sína gáfu, á sínum ákvedna tíma, hann skal bera sína synd.

14. Og þá þar byr nockur framande hiá ydur, hann skal og hallda Drottni páska, og hann skal hallda þá epter páskanna skickan og rette. Þesse skickan skal vera eins fyrer ydur alla, so þann framanda, so sem þann odalborna í landenu.

15. Og á þeim deige sem tialldbúdenn var uppreist, þá hulde eitt ský yfer tialldbúdena vitnisbúrdarnis, og þad var ad siá yfer tialldbúdenne, frá kvǫllde, og til morguns, þvi líkast sem einn elldur.

16. So skede alljafnt, ad skyed hulde hana, og um nætur var þad ad siá sem einn elldur.

17. Og epter þad ad skyed tók sig upp frá tialldbúdenne, þá ferdudust Israels bǫrn sína leid, og hvar sem skyed stadnæmdest, þar settu Israels bǫrn sínar tialldbúder.

18. Israels bǫrn ferdudust epter orde Drottins, og epter hans orde lǫgdu þeir sig. Og so leinge sem skyed var yfer tialldbúdenne, so leinge láu þeir kyrrer,

19. Og þá skyed dvaldist marga daga yfer tialldbúdenne, þá giættu Israels bǫrn vardhallds Drottins, og ferdudust hverge.

20. Og þegar so bar ad, ad skyed var nockra daga samfleyttyfer tialldbúdenne, þá settu þeir sínar herbuder epter orde Drottins, og so ferdudust þeir áleidis epter orde Drottins.

21. Þá skyed var þar frá kvǫllde og til morguns, og tók sig þá upp, þá ferdudust þeir framveiges, eda þá þad tók sig upp um daga, eda um nætur, þá ferdudust þeir aframm.

22. Enn þá þad var tvo daga, eda einn mánud, eda nockud leinge yfer tialldbúdenne, þá láu og Israels bǫrn kyrr, og ferdudust hverge, og þá þad tók sig þá upp, þá ferdudust þeir.

23. Þvi epter Drottins munne láu þeir, og epter Drottins munne ferdudust þeir, so ad þeir tóku vara á Drottins vardhallde, epter ordum Drottins fyrer Mosen.

## 10. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Giør þer tvo lúdra af þettu silfre, so þú meiger hafa þá þar til, ad kalla almúgann samann, og þegar ydar Her skal herbúdum svipta.

3. Þegar bláſed er í þá báda ad eins einfalldlega, þá ſkal allur almúgenn ſamanſafnaſt til þín, utan fyrer ſamkundu = tialldbúdardyrunum.

4. Og þá bláſed er ad eins í annann einfalldlega, þá ſkulu høfdingiarner ſafnaſt til þín, og þeir enu yppurſtu yfer þuſund í Jſrael.

5. Enn þegar ákafflega er bláſed í ludrana, þá ſkal ſa flockur herbúdum ſvipta ſem er í auſtre.

6. Og þegar ákaflega er trametad í annann tíma, þá ſkal ſa flockur tiølldum ſvipta, ſem liggur í mót ſudre, þvi þá þeir ſkulu ferdaſt, þá ſkulud þer trameta.

7. Enn þá almúgenn ſkal ſaman koma, þá ſkulud þer einfalldlega bláſa, og eigi trameta.

8. Og preſtarner, Aarons ſyner ſkulu bláſa í ludrana, og þad ſkal vera ein æfinleg ſkickan, hiá ydrum epterkomendum.

9. Þá þer fared í ſtríd í ydru lande, í móte ydrum óvinum, ſem heria á ydur, þá ſkulud þer bláſa í trametinn, ſo ydar meige minnſt verda fyrer Drottni ydrum Gude, og ad þer verded frelſter frá ydrum óvinum.

10. Sømuleidis, þá þer hafed fagnad á ydrum hátídum, og á ydrum nyum mánudum, þá ſkulud þer bláſa í trameturnar, yfer ydar brennefórnum, og þackaroffrum, ad þad meige verda ydur til einnrar minningar fyrer ydrum Gude. Eg em Drottinn ydar Gud.

11. A þeim tuttugaſta deige í þeim ødrum mánade, og á þvi ødru áre, tók ſkyed ſig úpp frá vitnisbúrdar tialldbúdenne.

12. Og Jſraels børn tóku ſig upp, og drogu af eidemørku Sinai, og ſkyed nam ſtadar í þeirre eydemørku Paran,

13. Enn þeſſer ſviptu firſt herbúdum epter ordum Drottins fyrer Moſen, ſem er,

14. Firſt fór merke herbúdanna Juda barna, med þeirra Her, og høfdinge fyrer þeirra Her var Naheſſon, ſonur Amminadab.

15. Og Nethaneel ſonur Zuar var høfdinge yfer Her Jſaſchars barna ættar.

16. Og Eliab ſonur Helon, var høfdinge yfer Her Sebulons barna ættar.

17. Þar med og ſo tóku Menn tialldbúdena nidur, og børn Gerſons og Merari gengu framm, og báru tialldbúdena.

18. Þvi næſt fór merke herbuda Rubens med þeirra Her, og Elizur ſonur Sedeur var høfuds madur yfer þeirra Her.

19. Selumiel ſonur Zuri Sadai, var høfdinge fyrer Her Simeonis barna ættar.

20. Og Eliaſaph ſonur Deguels, var høfdinge fyrer Her Gads barna ættar.

21. Þá foru og ſo þeir Kahathitar framm, og báru helgedomenn, og hiner adrer reiſtu tialldbúdina upp, þar til ad þeſſer komu epter þeim.

22. Þar næſt for merke Ephraims barna herbúda, med þeirra Her, og Eliſama, ſonur Ammihud, var yfer þeirra Her.

23. Og Gamliel, ſonur Pedazur, høfuds madur fyrer Her Manaſſe barna ættar,

24. Og Abidan, ſonur Gideonis, var høfuds madur fyrer Her Benjamins barna ættar.

25. Her næſt for merke Dans barna herbúda, med þeirra Her, þad voru þær ſeinuſtu herbúder. Og Ahieſer, ſonur Ammi Sadai, var høfuds madur yfer þeirra Her.

26. Og Pagiel, sonur Ochrans, var høfuds madur yfer Her Assers barna ættar.

27. Og Ahira, sonur Enans var høfuds madur fyrer Her Nephthali barna ættar.

28. So ferduduſt Israels børn framm med sinn Her.

29. Og Moses sagde til síns mágs Hobab, sonar Reguels af Midian, ver førum til þess stadar, um hvern Drottinn hefir sagt: eg vil gefa ydur hann, þvi far nú med oss, þá vilium ver gera vel til þín, þviad Drottinn hefir lofad Israel godu. Enn hann svarade:

30. Eigi vil eg fara med ydur, helldur mun eg fara til míns lands, og til minna ættmanna.

31. Hann sagde, eg bid þú yfergefer oss eigi, þvi þú veitst hvar ver skulum setia vorar herbúder í eydemørkenne, og þú skallt vera vor augu.

32. Og ef þú fer med oss, þá vilum ver gera vel til þín, af þvi góda sem Drottinn gefur oss.

33. So ferduduſt þeir frá fialle Drottins, þriggia daga leid, og sáttmáls ørk Drottins fór fyrer þeim, þá sømu þriggia daga leid, til ad vísa þeim hvar þeir skylldu hvíla.

34. Og ský Drottins var yfer þeim um daga, þá þeir foru af herbúdunum.

35. Og þá ørkenn for af stad, þá sagde Moses: rís upp þú Drottinn, lát þína óvine tvístrast, og alla flya fyrer þer, sem þig hata!

36. Og þá þeir hvílduſt, þá sagde hann: kom aptur þú Drottinn til fiøldans þusundanna Israels!

## 11. Capitule.

1. Og þá lídurenn vard óþolennmodur, fell þad illa fyrer eyrum Drottins, og þegar Drottinn heyrde þad, vard hann ákafliga reidur, og elldur Drottins uppkviknade á medal þeirra, og uppbrennde þad sem ytst var í herbúdunum.

2. Þá kallade fólked til Mosen, og Moses bad til Drottins, og so hvarf ellduren.

3. Og Menn kølludu þann stad Tabeera, sokum þess, ad elldur Drottins uppkveikteſt á medal þeirra.

4. Þvi almúga fólked á medal þeirra, þad feck lysting, og sat, og gret ásamt med Israels børnum, og søgdu: hver vill gefa oss kiøt ad eta?

5. Ver endurminnunſt þeirra fiska sem ver átum fyrer ecke í Egyptalande, og augurkur, og Pepones, Lauk, og Hvítalauk,

6. Enn nú eru ander vorar þreyttar, þvi vor augu siá ecke annad utann þetta Man.

7. Enn Man var líka sem Coriandersfræ, og þvi líkaſt ad siá sem Bedellion.

8. Og fólked for hingad og þangad, og tínde þad upp, og møludu þad under kvørn, og steyttu þad í mortele, og sudu þad í pottum, og gerdu þar af køkur á øskunne, og þær smøckudu so sem oliu køkur.

9. Og þegar døggenn fell yfer herbúdernar á nottunne, þá fell og Man þar nidur á med.

10. Þá Moses heyrde nú ad fólked gret, medal sinnar ættar, hver í sínum tialldsdyrum, þá gramdiſt reide Drottins miøg þunglega, og Moses vard og hryggur.

11. Þá sagde Moses til Drottins, hvar fyrer hreller þú þinn þenara, og þvi finn eg eigi nád fyrer þínum augum, ad þú leggur uppá mig byrde alls þessa folks?

12. Hefi eg geted allt þetta folk? hefi eg fædt þad? so þú meiger seigia

til mín, ber þá í þínum fadme (líka sem ein fostra ber eitt barn) inn í þad land sem þú hefir lofad þeirra fedrum?

13. Hvar skal eg taka kiøt ad gefa øllu þessu fólke? þad æder fyrer mer og seiger: gef oss kiøt ad eta.

14. Eg einnsamall get eigi bored allt þetta folk, þvi þad er mer ofþungt,

15. Og villtu so gera vid mig, þá líflát mig helldur, hafe eg annars funded nád fyrer þínum augum, ad eg siáe egi so mína ólucku.

16. Og Drottinn sagde til Mosen: samansafna mer siøtiu mønnum af ølldungum Israels, sem þú veitst, ad þeir seu ellster á medal folksins, og þeirra forstiórar eru, og leid þá fyrer samkundunnar-tialldbúd, og skicka þá þar framm fyrer þig.

17. So vil eg koma ofann, og tala þar vid þig, og taka af þeim anda sem er med þer, og leggia á þá, so ad þeir bere folksins þunga med þer, so þú skuler eigi einn bera hann.

18. Og þú skallt seigia til folksins: helged ydur til morguns, ad þer eted kiøt, þvi ydar grátur er komenn fyrer eyru Drottins, þer sem seiged: hver gefur oss kiøt ad eta? þvi þad geck oss vel í Egyptalande. Þar fyrer mun Drottinn gefa ydur kiøt, ad þer eted,

19. Eigi einn dag, eigi tvo, eigi fimm, eigi tíu, eigi tuttugu daga umkring,

20. Helldur einn mánud, þangad til þad geingur út um ydrar nasser, so ydur velge vid þvi, fyrer þvi þer hafed í burt kastad Drottni, sem á medal ydar er, og hafed gráted fyrer hønum, og sagt: hvar fyrer erum ver útgengner af Egyptalande?

21. Og Moses sagde: þetta folk er sex hundrud þusund fotgaungu lids, med al hverra eg em, og þú seiger: eg vil gefa ydur kiøt ad eta einn mánud í gegnum.

22. Skal nockud slá nidur naut og saude, so ad þeim meige nægiast? eda skulu aller fiskar siófarins safnast hingad, ad þad kunne ad nægia handa þeim?

23. Drottinn sagde til Mosen, er þá hønd Drottins stutt ordenn? nú, þú skallt siá, hvert mit ord kann ad koma framm vid þig, edur ei.

24. Og Moses geck út, og sagde ord Drottins fyrer folkenu, og hann heimte samann þá siøtíu Menn af ølldungum folksins, og let þá standa kringum tialldbúdena.

25. Þá kom Drottinn nidur í skyenu, og talade vid hann. Og hann tók af þeim anda sem var med hønum, og lagde hann yfer þá siøtíu ølldunga. Og þegar andenn hvíldest yfer þeim, þá spádu þeir, og letu eigi af.

26. Enn þar urdu enn þá tveir Menn epter í herbúdunum, einn het Eldad, enn annar Medad, og andenn hvíldest yfer þeim, þvi þeir voru og so uppskrifader, enn voru þo eigi útgeingner til tialldbúdarennar, og þeir spádu í herbúdunum,

27. Þá hliop eit ungmenne burt, og undervísade þad Mose, og sagde: Eldad og Medad spá í herbúdunum

28. Þá svarade Josua sonur Nun, Mosis þenare, sem hann hafde utvaled, og sagde: Moses minn Herra, fyrerbiód þú þeim þad.

29. Enn Moses sagde til hans, vandlæter þú minna vegna? giæfe Gud, ad allt folk Drottins kynne ad spá, og ad Drottinn vilde gefa sinn anda yfer þá!

30. So safnadest Moses, og þeir ellstu af Israel, til herbúdanna.

31. Þá geck út vindur frá Drott-

ni, og let vacktelur komo af siónum, og dreifde þeim yfer herbúdernar, umhverfis, her einnrar dagleidar leingd, og þar einnrar dagleidar leingd, tveggia alna hátt yfer jördenne.

32. Þá stód fólked upp, og safnade vakteler, allann þann sama dag, og alla þá nótt, og allann annann daginn, og sá sem minnst safnade, hann feck tíu homor, og þeir festu þá upp, kringum allar herbúdernar.

33. Þá kiøted var enn nú í millum þeirra tanna, og ádur enn þvi var loked, þá grámdest reide Drottins á medal folksins, og sló þad med einnre miøg storre plágu.

34. Þar af kalladest sá stadur gyrndar grafer, søkum þess, ad þad gyrndarsama fólk var jardad í þeim sama stad.

35. Folked fór frá gyrndar grøfunum til Hazeroth, og voru í Hazeroth.

## 12. Capitule.

1. Og Maria og Aaron átøldu Mosen, fyrer hans kvinnu skulld, sem var af morlande, þar fyrer, hann hafde teked eina morlendska konu ser til eigenkvinnu,

2. Og søgdu, talar þá Drottinn alleinasta fyrer Mosen? talar hann eigi og so fyrer oss? og Drottinn heyrde þad.

3. Enn Moses var einn miøg plágadur Madur framar enn aller Menn á jørdunne.

4. Og Drottinn sagde hastarlega til Mosen, til Aarons, og til Mariam, fared út, þer þriu samann, til samkundu-tialldbudarennar, og þau øll þriu geingu ut þangad.

5. Þá kom Drottinn nidur í skystolpanum, og stód í tialldbúdardyrunum, og kallade á Aaron og Mariam, og þau geingu bæde þar út.

6. Og hann sagde, heyred mín ord, er þar nockur spámadur Drottins af ydur? þeim vil eg opennbera mig í einnre syn, eda eg vil tala vid hann í einum draume.

7. Enn eigi so minn þenare Moses, sem er trulyndur í øllu mínu húse,

8. Eg tala munnlega vid hann, og hann ser Drottinn í sinne mind, eigi í mirkum ordum, edur líkingum. Þvi óttudust þid þá eigi ad mæla í móte mínum þenara Mose?

9. Og reide Drottins grimdest þeim, og hann fór í burt,

10. Þar med hvarf og skyed í burt frá tialldbudenne og siá, Maria vard spitelsk, líka sem Sniór. Og Aaron leit til Mariam, og vard var vid, ad hún var ordenn líkþrá,

11. Og hann sagde til Mosen, minn Herra, lát eigi þessa synd blífa á ockur, med hverre vid høfum dárlega gert og syndgast,

12. Ad þesse se eigi so sem sá er daudur kemur af sinnar modur lífe, þad hefir alla reidu upp eted halft hennar holld.

13. Þá kallade Moses til Drottins, og sagde: æ Gud, heilbrigda þú hana!

14. Drottinn sagde vid Mosen, ef fader hennar hefde hrækt í hennar andlit, skyllde hún þá eigi skammast sín í siø daga?

15. Lát hana vera útelukta í siø daga, utann herbúdanna, epter þad má hún takast aptur. So var Maria uteluckt af herbudunum í siø daga. Og folked ferdadest eigi leingra á-framm, fyrr enn Maria var medtekenn aptur.

## 13. Capitule.

1. Epter þad ferdadest fólked frá Hazeroth, og sette herbúder sínar í þeirre eydemørku Paran.

2. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

3. Send þú Menn út ad skoda landed Canaan, hvert eg vil gefa Israels børnum, af serhverre kinkvísl einn uppvarlegann Mann.

4. So sende Moses þá af þeirre eydimørku Paran, epter orde Drottins, þeir ed aller voru høfdingiar fyrer Israels børnum.

5. Og þesse eru þeirra nøfn. Sam nua, sonur Zacur, af ætt Ruben.

6. Saphat, sonur Hori, af ætt Simeon.

7. Caleb, sonur Jephunne, af ætt Juda.

8. Jgeal, sonur Josephs, af ætt Jsachar.

9. Hosea, sonur Nun, af ætt Ephraim.

10. Palti, sonur Raphu, af ætt Benjamin.

11. Gadiel, sonur Sodi, af ætt Sebulon.

12 Gaddi, sonur Susi, af ætt Josephs, af Manasse.

13. Ammiel, sonur Gemalli, af ætt Dan.

14. Sethur, sonur Michael af ætt Asser.

15. Nahebi, sonur Vaphsi, af ætt Nephthali.

16. Guel, sonur Machi, af ætt Gads.

17. Þesse eru nøfn þeirra Manna sem Moses útsende ad skoda landed, enn Moses kallade Hosea Nun son Josua.

18. Sem Moses sende þá nú út, til ad skoda Canaans land, sagde hann til þeirra, reised upp í mót sudre, og ganged á fiallenu uppe,

19. Og gaumgiæfed landed, hvernenu þad er, og þad folk sem þar í byr, hvert þad er sterkt edur veikt, fátt eda margt.

20. Og hvad þad er fyrer eitt land sem þeir byggia, hvert þad er godt, eda vondt, og hvad fyrer borger þad eru, sem þeir búa ut í, hvert þeir búa í tialldbudum eda føstum stødum.

21. Og hvad þad er fyrer land, hvert þad er feitt eda magurt, og hvert þar eru tre inne, edur eigi, vered hughrauster, og taked af áverte landsins. Og þetta var á þeim tíma sem vínþrugurnar voru first fullvaxnar.

22. Þeir fóru af stad upp epter, og niósnudu um landed, frá eydemørku Zin, og allt til Rehob, þá fared er til Hamath,

23. Þeir geingu og upp í mót sudre, og komu til Hebron, þar voru þeir Ahiman, Sesai og Thalmai, Enaks børn. Enn Hebron var bygd siø árum fyrr enn Zoan í Egyptalande.

24. Og þeir komu til þess lækiar sem kalladest Escol, og skáru þar upp einn vínkvíst med vínberia klasa, og letu tvo Menn bera hann á einnre staung, þar til og so granata eple og fíkiur.

25. Sá stadur kallast Escols lækur, søkum þess vínberia klasa sem Israels børn skáru þar af.

26. Og þeir sneru ser aptur, þá þeir høfdu rannsakad landed epter fiørutíu daga,

27. Geingu þadann, og komu til Mosen, og Aaron, og alls almúgans Israels barna, í eydemørku Paran, gegnt Kades, og søgdu þeim og øllum almúganum, hvernenu til stæde, og þeir letu þá siá landsins ávauxtu.

28. Og kunngerdu þeim frá, og søgdu: ver komum í landed, þad þer sendud oss til, í hveru ad flytur miolk og hunáng, og þetta er ávauxturenn þadann,

29. Utann þad, ad þar byr sterkt folk, og þar eru miøg stórar og sterkar borger, og ver sáum þar og so Enaks børn í landenu.

30. Og Amalechitar búa synnann í landenu, enn Hethitar, Jebusitar og Amoritar búa á fiøllunum, Cananitar búa út med siónum, og hiá Jordan.

31. Enn Caleb stødvade folked fyrer Mose, og sagde, látum oss fara upp þangad, ad inntaka landed, þviad ver fáum þad vel med magt unned.

32. Enn þeir Menn, sem upp þangad høfdu fared med honum, søgdu: eigi kunnum ver ad fara upp þangad, í móte þvi folke, þvi þad er sterkara enn ver.

33. Og þeir hallmælltu landenu, fyrer Israels børnum, sem þad høfdu skodad, og søgdu: Þad land sem ver geingum ad skoda, upp etur sína innbyggiara, og allur sá lydur sem ver sáum þar inne er hardla hávaxed folk,

34. Ver sáum þar og risa, Enaks børn af risa ættum, og ver syndustum syrer vorum augum líka sem grashoppur, og so syndust ver líka fyrer þeirra augum.

# 14. Capitule.

1. Þá hóf allur almúgenn upp ad kalla; folked gret alla þá nott.

2. Og øll Israels børn møgludu mót Mose og Aaron, og allur almúgenn sagde til þeirra: Gud giæfe þad ver hefdum dáed í Egyptalande, eda dæum ver enn nu her í þessare eydemørku,

3. Þvi leider Drottinn oss í þad land, so ad vorar konur falle fyrer sverde, og vor børn verde ad herfange? er eigi betra ver førum aptur inn í Egyptaland?

4. Og hver sagde til annars: fáum oss einn høfdingia, og førum í Egyptaland aptur.

5. Enn Moses og Aaron fellu framm á sínar ásiáner fyrer øllum almúgans søfnude, af Israels børnum.

6. Og Josua sonar Nuns, og Caleb, sonur Jephunne, sem og so høfdu skodad landed, rifu sín klæde,

7. Og søgdu til alls almúgans Israels barna: Þad land, sem ver í gegnum fórum ad skoda, er hardla gott.

8. Se Drottinn oss nádugur, þá leider hann oss vel inn í þad sama land, og gefur oss þad, þad er þad land sem miolk og hunáng íflytur.

9. Falled eigi frá Drottne, og hræde st eigi lyd þess lands, þvi ver vilium eta þá upp, líka sem braud, allt þeirra fulltingi er frá þeim horfed, enn Drottinn er med oss; hrædest þá eigi.

10 Þá sagde allt folked: ad Menn skylldu beria þá grióte. Þá opeinberadest dyrd Drottins í samkunduti alldbudenne, fyrer øllum Israelis børnum.

11. Og Drottinn sagde til Mosen: hversu leinge skal þetta folk smána mig? og hversu leinge vilia þeir eigi trúa mer, fyrer allra handa teikn, sem eg hefe gert á medal þeirra?

12. Eg vil lióstа þá med drepsott, og asmá þá, og gera þig ad meire og sterkare þiod, en þesse er.

13. Þá sagde Moses til Drottins: Þad spyria Egyptsker Menn, þvi þú hefir fært þetta folk midt út frá þeim, med þinum krafte,

14. Og þeir munu seigia til þessa lands innbyggiara, sem hafa heyrt, ad þú Drottinn ert á medal þessa folks, og opennberliga audsyner þig og þitt sky stendur yfer þeim, og þú Drottinn geingur fyrer þeim um

daga í skÿstolpa, enn um nætur í elldstolpa.

15. Og ef þú slær nú þetta folk íhel líka sem einn Mann, þá munu heidingiar, þeir sem soddan rickte um þig heyra, mæla og seigia,

16. Drottinn gat í engvann máta leidt þetta folk í þad land, sem hann hafde svared því, og því hefir hann slátrad því í eydemørku.

17. So lát nú kraft Drottins miklast, so sem þú hefir talad, og sagt,

18. Drottinn er þolennmodur og miøg miskunsamur, og fyrer gefur synder og misgerder, og lætur engann óhegndann, helldur vitiar hann fedranna misgerninga yfer børnunum, í þridia og fiorda lid.

19. So vertu nú líknsamur misgerningum þessa folks, epter þinne mikelle miskunseme, so sem þú hefir og fyrergefed þessu folke, sídann þú leiddet þad út af Egyptalande, allt til þessa.

20. Og Drottinn svarade: eg hefe fyrergefed því, epter því sem þú mællter.

21. Enn so sannarlega sem eg life, skal øll verølldenn uppfyllast af dyrd Drottins.

22. Þviad aller þeir Menn sem sed hafe mína dyrd, og mínar jarteikner, sem eg gerde í Egyptalande, og í eydemørkenne, og hafa nú freistad mín tíusinnum, og eigi hlydt minne rødd,

23. Eingenn þeirra skal siá þetta land, sem eg sór þeirra fedrum, og eingenn af þeim skal fá ad siá þad, sem mig hafa lastad.

24. Enn minn þenara Caleb vil innleida í þad land, sem hann var fyrre í, þviad annar ande er med hønum, og hann hefir trulega efterfylgt mer, og hans sæde skal eignast þad.

25. Þar til Amalechitana, og Cananitana sem búa í dalnum, snued um á morgun, og fared í eydemørkena, á þann veg, sem liggur til þess rauda hafs.

26. Og Drottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde:

27. Hversu leinge vill þesse hinn ille almúge møgla í móte mer? þvi heyrt hef eg þad møgl sem Israels børn hafa møglad á móte mer

28. Þar fyrer seig þú til þeirra: so sannarlega sem eg life, seiger Drottinn, eg skal gera vid ydur, so sem þer hafed sagt, fyrer mínum eyrum,

29. Ydrir líkamer skulu falla í þessare eydemørku, og aller þer sem talder erud tvítuger, og þadann af elldre, þer sem møglad hafed í móte mer,

30. Þer skulud eigi koma í þad land sem eg hefe upplypt minne hende yfer, ad eg villde láta ydur búa þar, utann Caleb, son Jephunne, og Josua, son Nuns.

31. Ydar børn, um hver þer søgdud, ad þau mundu verda ad herfánge, þá vil eg leida þangad inn, ad þeir kanne þad land hvert þér forsmádud,

32. Enn þer og ydrir líkamer skulu falla í þessare audn.

33. Og ydar børn skulu vera hyrdarar í þessare eydemørku í fiørutíu ár, og bera ydarn saurlifnad, þar til ad ydrir líkamer eru foreydder í eydemørkenne.

34. Epter tølu þeirra fiørutíu daga á hverum þer rannsøkudud landed, iá, hver dagur skal gillda eitt ár, so ad þer skulud bera ydra misgerninga í fiørutíu ár, so þer vited hvad þad er, þá eg tek af høndina.

35. Eg Drottinn hefe sagt þetta; þetta vil eg og gera þessum vonda almúga, sem sig hefir uppsett í mót

mer, þeir skulu aller verda ad engo í þessare eydemørku, og deya í þessum stad.

36. So dóu aller þeir Menn í plágu, fyrer Drottni, sem Moses hafde útsendt ad rannsaka landed, og voru komner aptur, og komu øllum almúganum til ad møgla þar á móte,

37. Þar med, ad þeir úthrópudu af landenu, ad þad være illt.

38. Enn Josua, sonur Nuns, og Caleb, sonur Jephunne, lifdu efter af þeim monnum sem fared høfdu ad skoda landed.

39. Og Moses talade þesse ord til allra Israels barna, þá vard folked miøg sorgande.

40. Og um morgunenn stódu þeir miøg snemma upp, og geingu uppá fialled, og søgdu: siá! ver erum her, og viljum fara upp til þess stadar sem Drottinn hefir talad um, því ver høfum syndgast.

41. Enn Moses sagde: því yfertroded þer so ord Drottins? þad mun eigi luckast ydur,

42. Fared eigi upp þangad, því Drottinn er eigi medal ydar, ad þer falled eigi fyrer ydrum óvinum.

43. Því Amalech og Cananei eru þar fyrer ydur, og þer munud falla fyrer sverde, fyrer því, ad þer snerud ydur frá Drottni, mun Drottinn eigi vera med ydur.

44. Enn þeir voru einbeitter ad fara uppá hæd fiallsins, enn sáttmáls ørk Drottins og Moses komu hverge úr herbúdum.

45. Þá komu þeir Amalechitar, og Cananitar ófann, sem bivggu í fiallbygdum, og veittu þeim slag, og sundur mørdu þá allt inn til Horma.

## 15. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala vid Israels børn, og seig þú til þeirra: þá þer komed í þad land, sem þer skulud byggia, hvert ad eg vil gefa ydur,

3. Og þer viled gera Drottni offur, hvert helldur þad er eitt brenne-offur, eda eitt offur fyrer nockora serlega heitstreinging, eda er þad eitt sialfviliugt offur, eda ydart hátída offur, so þer meiged gera Drottni einn sætann ilm, af nautum eda saudum.

4. Hver sem vill offra Drottni sína gáfu, hann skal gera til matoffurs þann tíunda part hveitemiøls, blandad vid fiordung af hin vidsmiørs,

5. Og enn fiorda part af hin víns til dricktar-offurs, til einnrar brenne fornar, edur nockurs annars offurs, þegar eitt lamb er haft til fórnar.

6. Enn þá einn hrútur er fórnfærdur, þá skalltu gera matoffur, tvo tíundu parta hveitemiøls, blandad med oleo, þridia part af hin,

7. Og enn þridia part af hin víns til dricktar offurs, þad skalltu offra Drottni til eins sæts ilms.

8. Enn viler þú offra Drottni einum uxa til einnrar brenne-fórnar, eda til eins serligs heitis-fórnar, eda til eins þackletis-offurs Drottni,

9. Þá skalltu offra med sama uxa til matoffurs, þremur tíundum hveitemiøls, blandudum med hálfre hin vidsmiørs.

10. Og eina hálfa hin víns til dricktar-offurs, þad er offur Drottni, til eins sætleiks ilms.

11. So skalltu gera vid einn uxa, einn hrút, einn saud, af lømbum og geitum.

12. Epter tølu þessara fórna, þá skal og talann vera á mat-offrenu, og so dryckiar-offrenu,

13. Hver hann er heima fæddur, hann skal soddann gera, ad hann offre Drottni offur til eins sæts ilms.

14. Enn ef þar byr nockur útlendur medal ydar, eda á medal ydrar ættar, og vill gera Drottni eitt offur til eins sæts ilms, hann skal gera líka, sem þeir gera.

15. Ein skickan skal vera øllum søfnude, bæde hiá ydur, og so hiá þeim framandum.

16. Pad skal vera ein æfinnleg skickan hiá ydrum epterkomendum, ad sá hinn framande skal vera fyrer Drottni líka sem þer. Eitt løgmál, einn rettur skal vera, bæde fyrer ydur, og so fyrer þá framande, sem búa hiá ydur.

17. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

18. Tala þú vid Israelis børn, og seig þú til þeirra: Þá þer komed í þad land í hvert eg vil leida ydur,

19. Og þer eted af braudenu þess lands, þá skulud þer gefa Drottni eina upplypting,

20. Sem er, eina køku af ydru fyrsta deige skulud þer gefa til upplyptingar, líka sem þer gerdud af upplypting af kornhlødunne,

21. So skulud þer og hiá ydrum epterkomendum gefa Drottni þad fyrsta af ydru deige til upplyptingar.

22. Og þegar þer søkum óvitsku gered eigi eitthvad af þessum bodordum, sem Drottinn hefir talad til Mosen.

23. Og þad allt sem Herrann hefir boded ydur, fyrer Mosen, frá þeim deige, sem hann tók fyrst til ad skipa ydrum epterkomendum,

24. Ef almúgenn gerer nú nockud af yfersión, þá skal allur almúgenn taka einn ungann uxa, af nautunum, til brenne-fórnar, til eins sæts ilms fyrer Drottni, med sínu mat-offre, og dryckiar-offre, so sem tilheyrer, og einn kiarnhafur til synda-offurs.

25. Þá skal presturenn gera eina forlíkan fyrer allann almúga Israelis barna, so er þeim þad fyrergefed, þvi þad er ein yfersión. Og þeir skuln bera Drottni þessar sínar gáfur til eins offurs, og þeirra synda-offur fyrer Drottni, fyrer þeirra yfersion,

26. So verdur þad øllum almúganum Israelis barna fyrergefid, so og líka þeim framandum sem ad búa á medal ydar, med því ad allt folked er í soddann yfersion.

27. Enn þegar ein sál syndgar af yfersion, hún skal føra eina geit árs gamla framm til eins synda-offurs.

28. Og presturenn skal forlíkun gera, fyrer þá sál sem þá yfersion byndte, med sama synda-offre, fyrer þá yfersion fyrer Drottni, ad hann forlíke hana, so verdur þad henni fyrergefed.

29. Og þetta skal vera eitt løgmál, ad þer skulud gera fyrer yfersionenne, bæde sá innlende á medal Israelis barna, og sá útlende sem byr á medal ydar.

30. Enn þá ein sál gerer nockud af sinne þrákelkne, hvert sem hún er innlendsk, eda framande, sú hefir forachtad Drottinn, soddann ein sál skal afmád verda frá sínu fólke,

31. Fyrer því hún fyrerleit Drottins ord, og forlet hans bod, hún skal med øllu afmást, skulldenn se hennar.

32. Og þad skede þá Israels børn vóru í eydemørkenne, fundu þeir einn Mann, hver ed saman safnade triám á einum sabbathsdeige.

33. Enn þeir sem fundu hann ad þessu verke, triánum ad safna, leid-

du hann fyrer Mosen og Aaron, og fyrer allann sofnudenn,

34. Og þeir settu hann í fángelse. Þvi þad var enn þá eigi klarlega ákvedid, hvad þar skyllde gera vid hann.

35. Enn Drottinn sagde til Mosen: sá Madur skal vissulega deya, allur almúgenn skal beria hann grióte til bana utann herbudanna.

36. Þá færde allur almúgenn hann út yfer herbúdernar, og grytu hann, so hann dó, epter þvi sem Drottinn hafde boded Mose.

37. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

38. Tala þú vid Israelis børn, og seig til þeirra; ad þeir skulu gera breminingar á saumum þeirra kirtla, á medal allra ydra epterkomenda, og setia gular silkesnúrur yfer þær sømu breminingar, á saumunum.

39. Og þær sømu breminingar skulu þena ydur þar til, ad þer skulud horfa á þær, og minnast á bodord Drottins, og gera þau, og eigi hallda ydur epter hugbode ydars hiarta, og eigi helldur fremia hórdom epter ydrum augum.

40. Þar fyrer skulud þer minnast á ad gera øll mín bod og vera heilager fyrer ydrum Gude.

41. Eg em Drottinn ydar Gud, sem hefe útleidt ydur af Egyptalande, so ad eg være ydar Gud; eg em Drottinn ydar Gud.

## 16. Capitule.

1. Og Korah, sonur Jezehars, sonar Kahahts, sonar Levi, og Dathan, og Abiram, syner Eliabs, og On, sonur Peleths, sem var af sonum Ruben,

2. Þeir settu sig upp í móti Mose, med nockrum ødrum mønnum af Israelis børnum, tvø hundrud og fimmtíu betur af þeim yppurstum medal almúgans, rádmenn og nafnkunnuger Menn,

3. Og þeir tóku sig samann í móti Mose og Aaron, og søgdu til þeirra: þid hafed ófmiked vid, þvi sá almúge er allur samann heilagur, og Drottinn er á medal þeirra, þvi upphefed þer ydur yfer Guds almúga?

4. Og þá Moses þad heyrde, fell hann framm á sitt andlit,

5. Og sagde til Korah og alls hans selskapar: á morgun skal Drottinn syna hver hans er, hver heilagur er, og hver hønum skal offur særa: hvern hann útvelur, sá skal færa hønum offur.

6. Gered so, taked ydur reykelsis ker, Korah og allur hans selskapur,

7. Og legged elld þar út í, og legged reykelse þar á, á morgun fyrer Drottni, og hvern Drottinn útvelur, sa vere heilagur, þer hafed ofmiked vid, þer Levi børn.

8. Og Moses sagde til Korah, heyred þer born Levi,

9. Þiker ydur þad so lítels verdt, ad Israels Gud hefir skiled ydur frá Israels almúga, ad þer skulud offra honum, og ad þer þioned í Drottins tiallbúdar embætte, og ganged framm fyrer almúganu, og þioned hønum?

10. Hann hefir medteked þig, og alla þína brædur Levi born til sín, og þer gyrnest nú og so prestanna embætte,

11. Enn þú og allur þinn selskapur gerer einn mótblástur í móte Drottni; hvad er Aaron, ad þer møgled í móte hønum?

12. Og Moses sende bod þangad, og let kalla Dathan, og Abiram, syn Eliabs. Enn þeir svorudu: eige vilium ver fara upp þangad,

13. Er þad of líted, ad þú hefir fært oss af þvi lande, sem miolk og

hunnang flytur í, til ad slá oss (hel her í eydemørkenne? villtu þá endelega Drottna yfer oss?

14. Hversu sínlega hefir þú sært oss inn í þad sem miolk og hunang flytur í? og gefed oss akra og víngarda til eignar? villtu og slíta augun út á folkenu? eigi komum ver upp þangad.

15. Þá vard Moses afar reidur, og sagde til Drottins: snú þer eigi til þeirra matoffurs. Eg hefe eigi teked einn asna frá þeim, og engum hefi eg á móte gert á medal þeirra.

16. Og hann sagde til Korah: þú og allur þinn selskapur skulud vera á morgun fyrer Drottne, þú og þeir, og Aaron.

17. So skal hver af ydur taka sitt glódarker, og leggia reykelse þar uppá, og ganga framm fyrer Drottinn, hver med sitt glódarker, þad eru tvø hundrud og fimmtíu glódarker.

18. Og hver tók sitt glódarker, og logdu elld þar í og reykelse þar yfer, og geingu framm fyrer samkundu-tialldbudardyr, og Moses og Aaron med.

19. Og Korah samansafnade øllum almuganum í gegn þeim, utann fyrer samkundu-tialldbudardyrunum.

20. Enn Drottins dyrd opennberadest fyrer øllum almuganum. Oa Drottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde:

21. Skiled ydur frá þeim almúga, so eg meige skyndelega eydeleggia þá.

22. Enn þeir fellu framm á sínar ásionur, og søgdu: o Gud, þú sem ert einn Gud andanna alls holldz, þo ad einn Madur hafe syndgast, villtu þar fyrer láta grimmd þína ganga yfer allann almúgann?

23. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

24. Tala til almúgans, og seig: víked frá tiølldum þeirra Korah, Dathans, og Abirams, allt umkring.

25. Og Moses stód upp, og geck til Dathan og Abiram, og þeir elldstu af Israel fylgdu hønum efter.

26. Og hann talade vid søfnudenn, og sagde: víked frá þessum ógudlegra Manna hybylum, og snerted eigi neitt af þvi sem þeim heyrer til, so þer skulud eigi fyrerfarast í øllum þeirra syndum.

27. Og þeir viku upp frá hybylum Korah, Dathans og Abirams. Enn Dathan og Abiram geingu út, og stódu í sinna hybyla dyrum, med sínum kvinnum, sonum og børnum.

28. Og Moses sagde: þar af skulud þer merkia, ad Drottinn hefir sendt mig, ad eg skyllde gera øll þesse verk, enn eigi af mínu hiarta.

29. Ef þad so, ad þesser deye, so sem aller Menn deya, eda se þeirra heim vitiad, so sem allra annara Manna verdur vitiad, þá hefir eigi Drottinn útsendt mig.

30. Enn gere Drottinn nockud nytt, so ad jørdenn upp láte sinn munn, og uppsvelge þá med øllu þvi sem þeir hafa, so ad þeir fare lifande ofan í helvíte, þá skulud þer vita, ad þesser Menn hafa lastad Drottinn.

31. Og þá hann hafde út talad øll þesse ord, sprack jørdenn under þeim,

32. Og upplet sinn munn, og uppsvelgde þá med þeirra húsum, og med øllum þeim mønnum sem voru med Korah, med øllum þeirra fiárhlutum,

33. Og þeir foru lifande ofann í helvíte, med øllu þvi sem þeim kom til, og jørdenn hulde þá, og þeir fyrerfórust so midt frá almúganum.

34. Og allt Israels folk, sem var allt í kringum þá, flýdu fyrer þeirra hrópe, þvi þeir søgdu: Gud láte jørdena og eigi einnenn svelgia oss upp.

35. Þar ad auk fór og einn elldur út frá Drottni, og foreydde þeim tveim hundrudum og fimmtíu mønnum sem offrudu reykelse.

36. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

37. Seig Eleasar syne Aarons presss, ad hann take glódar-kerinn upp ur elldenum, og dreife elldenum hingad og þangad, þviad glódar-kerenn, sem þeir áttu, er syndgast høfdu á móte sínum sálum, eru helgud,

38. Og þau skulu sláſt í breidar skífur, og heingiast í kringum alltared, þvi þau eru offrud fyrer Drottni, og heiløg gerd, og þau skulu vera Israels børnum til eins teikns.

39. So tók presturenn Eleasar þau glódarker af kopar, sem þeir høfdu offrad med sem brunnu, og sló þau út í skífur ad heingia um alltarid,

40. Israels børnum til einnrar minningar, ad eingenn framande, sem eigi er af Aarons sæde, skyllde gefa sig til ad offra reykelse fyrer Drottni, so ad þad gange eigi þeim hinum sama, so sem þad geck til med Korah og hans selſkap, sem Drottinn hafde sagt hønum fyrer Mosen.

41. Annars dags epter møglade allur almúgenn Israels barna í gegn Mose og Aaron og søgdu: Þer hafed sleiged Drottins folk íhel.

42. Og þá almúgenn samannsafnadest í móte Mose og Aaron, sneru þeir ser til samkundu-tialldbúdarennar, og siá, ad skyed hulde hana, og dyrd Drottins opennberadest.

43. Enn Moses og Aaron geingu inn í samkundu-tialldbúdena.

44. Og Drottenn talade vid Mosen, og sagde:

45. Flyed burt frá þessum almúga: eg vil hastarlega eydeleggia þá, og þeir fellu framm á þeirra andlit.

46. Og Moses sagde til Aarons, tak glódarkered, og legg elld þar í af alltarenu, og legg reykelse þar uppá, og gack þú fliotlega þangad til almúgans, og ger eina forlíkun fyrer þá, þvi þar er brád reide út geingenn af Drottni, og plágann er upp byriud.

47. Og Aaron tók sem Moses hafde befaled hønum, og hliop midt í millum almúgans. (Og siá, þá var plágann uppkomenn á medal folksins). og hann brennde reykelse, og gerde eina forlíkun fyrer folked,

48. Og stód í millum þeirra daudu og hinna lifendu, og so stilltest plágann.

49. Enn þeir sem dóu í þeirre plágu voru fiortan þusunder, og siø hundrud, fyrer utann þá sem dóu med Korah.

50. Og Aaron kom til Mosen aftur, utann fyrer samkundu-tialldbúdardyrunum, og plágann stilltest.

## 17. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Tala þú vid Israels børn, og tak tolf stafe af þeim, einn af hverium høfdingia yfer síns fødurs húse, og skrifa serhvers nafn á hans staf.

3. Enn Aarons nafn skalltu skrifa á staf Levi, þviad sinn stafur skal vera fyrer hvert høfud yfer þeirra fedra húse.

4. Og legg þá í samkundu-tialld-

búdena, fyrer vitnisbúrdenn, þar sem eg vitna fyrer ydur.

5. Og þann eg útvel, þess stafur skal blomgast, ad eg meige so stilla møgl Jsraels barna, þad þeir møgla í móte ydur.

6. Moses talade vid Jsraels børn, og aller þeirra høfdingiar feingu hønum tolf stafe, hver høfdinge einn staf, epter þeirra fedra húse, og Arons stafur var og so á medal þeirra stafa.

7. Og Moses lagde stafena fyrer Drottinn, í vitnisburdar tialldbúdina.

8. Enn um moraunenn, sem Moses geck inn í vitnisbúrdar tialldbúdina, fann hann Arons staf af Levi húse, ad hann var blomgadur ordenn, og blomstred var útsprunged, og bar mandel.

9. Og Moses bar stafena út frá Drottni, til allra Jsraels barna, so þeir sáu þá, og hver tók vid sínum staf.

10. Og Drottinn sagde til Mosen: ber Arons staf inn aptur fyrer vitnisbúrdenn, so hann se geymdur til eins merkis, þeim óhlidnu børnum, so ad þeirra møglan af leggest fyrer mer, so þeir skulu eigi deya.

11. Moses gerde sem Drottinn baud hønum.

12. Og Jsraels børn søgdu til Mosen: siá þú, ver fordiørfunst, og deyum, ver verdum aller ásmáder og deyum,

13. Hver sem kemur nær tialldbúd Drottins, hann deyr, skulum ver þá med øllu eydeleggiast?

## 18. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Aron: þú og þíner syner, og þíns fødurs hús med þer, skulud bera misgerning helgedómsins, og þú og þíner syner med þer skulu bera misgerning ydars presta embættis.

2. Enn þú skallt taka þína brædur þíns fødurs Levi slekt til þín, so ad þeir skulu vera hiá þer, og þiona þer, enn þú og þíner syner med þer skulu þiona í vitnisbúrdarins tialldbúd.

3. Og þeir skulu taka vara á þinne þionustu, og á þeirre allre tialldbúdarennar þionustu. Þó skulu þeir eigi koma vid helgedomsins ker, eda vid alltared, so ad bæde þeir og þer meiged eigi deya,

4. Enn þeir skulu vera med þer, og taka vara á þionustunne í samkundu-tialldbúdenne, og á øllu embætte tialldbúdarennar, og eingenn framande skal nálægiast ydur.

5. So taked nú vara á helgedomsins þionustu, og so á alltaresins þionustu, so ad hedann í frá kome eigi meir hostug reide yfer Jsraels børn.

6. Þvi siá þú, eg hefe teked ydar brædur Levitanna af Jsraels børnum, og skeinkt ydur þá, Drottni til einnrar gáfu, ad þeir skylldu annast embætte í samkundu-tialldbúdenne.

7. Enn þú og þíner syner med þer skulu taka vara á ydru presta-embætte, so þer þioned í øllu þvi, sem heyrer til alltarenu, og fyrer innann fiortiallded, þvi eg gef ydur ydran prestdom til embættis, fyrer einn skeink: enn kome nockur framande þar til, þá skal hann deya.

8. Og Drottinn sagde til Aaron: siá, eg hefe gefed þer mínar upplyptingar-fórner, af øllu þvi sem Jsraels børn helga, fyrer þitt, og þinna sona, prestanna embætte, til einnrar eylífrar skickunar.

9. Þad skalltu hafa af øllu þvi helgasta sem þeir offra, allar þeirra gáfur med øllu þeirra mat-offre,

og med øllu þeirra synda-offre, og med øllu þeirra skullds-offre sem þeir gefa mer, þad skal vera þer og þínum sonum þad allra helgasta,

10. Og þú skallt eta þad í þeim allra helgasta stad: hvad karlkins er, skal eta þar af, þvi þad skal vera þer heilagt.

11. Og eg hefe gefed þer þad sama upplyptingar-offur, af þeirra gáfum, med øllu Israelis barna veyfunar-offre, ad þú og þíner syner, og þínar dætur skulu hafa þau fyrer eylífa skickan; hver sem hreinn er í þínu húse, skal eta þar af.

12. Allt þad besta af vidsmiørinu, og allt þad besta af vínenu, og allt þad fyrsta af kornsins sáde, sem þeir gefa Drottni, þad hefi eg gefed þer.

13. Þann fyrsta ávaurt af øllu þvi sem er í þeirra lande, sem þeir gefa Drottni, þad skal vera þitt; hver sem er hreinn í þínu húse hann skal eta þar af.

14. Allt þad sem bannfært er í Israel, þad skal vera þitt.

15. Allt þad sem fyrst opnar sinnar modur kvid af øllu hollde, sem þeir bera til Drottins, hvert þad er af mønnum, eda af fenadenum, þad skal vera þitt. Þó so, ad þú láter Mannsins frumburd leysast aptur, og sá frumburdur af óhreinu fe skal og leysast.

16. Enn þeir skulu leysa þad, þá þad er eins mánadar gamallt, og þad skal gefast laust fyrer peninga, fyrer fimm siklos, epter helgedómsins sikle, sem gillder tuttugu gera.

17. Enn þa frumburde af nautunum og saudum, eda geitum, skalltu eigi láta til lausnar, þvi þad er heilagt, þeirra blóde skalltu støckva á alltared, og upptendra þeirra feite til eins fæts ilms fyrer Drottni,

18. Þeirra kiøt skal heyra þer til, líka sem veyfunar-bringann, og sá hægre bogurenn heyrer þer til.

19. Øll upplyptingar-offur, sem Israels børn helga Drottni, hefe eg gefed þer og þínum sonum, og þínum dætrum med þer, til, einnrar eylífrar skickunar; þad skal vera þer, og þínu sæde med þer, einn óforgeingelegur sáttmále fyrer Drottni æfinnlega.

20. Og Drottinn sagde til Arons: þú skallt ecke eignast í þeirra lande, og ecke hlutskipte á medal þeirra taka, þvi eg em þitt hlutskipte, og þinn arfur á medal Israels barna,

21. Enn eg hefe gefed Levi børnum allar tíunder í Israel, til eins arfs fyrer þeirra þionustu, sem þeir gera mer í samkundu-tialldbúdenne.

22. Ad Israels børn skulu eigi meir her epter fara til samkundu-tialldbúdarennar, so þeir hlade eigi á sig nockorre synd, og deye.

23. Enn Levitarner skulu taka vara á þionustunne í samkundu-tialldbúdenne, og þeir skulu bera þeirra annara misgerninga, til eins eylífs rettar hiá ydrum epterkomendum. Og þeir skulu ecke arfagots eignast medal Israels barna,

24. Þvi eg hefe gefed Levitunum til eins arfs tíunder Israels barna, sem þeir upplypta fyrer Drottni, þvi hefe eg sagt til þeirra: ad þeir skulu engann arf eignast á medal Israels barna.

25. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

26. Tala þú vid Levitana, og seig þú til þeirra: Þá þer taked þá tíund af Israels børnum, sem eg hefe gefed ydur af þeim, til ydars erfda gots, þá skulud þer gera Drottni eitt upplytingar-offur þar af, iá, þann tíunda part af tíundenne,

27. Og þad ydar upplyptingar-offur skal reiknast ydur, líka sem þer giæfud korned af hlødunne, og fyllinguna af vínþrúgunne.

28. So skulud þer og gefa Drottni upplyptingar-offur af øllum ydrum tíundum, sem þer taked af Israels børnum, ad þer gefed prestenum Aaron þad sama Drottins upplyptingar offur.

29. Þer skulud gefa Drottni upplyptingar-offur af øllu þvi sem ydur gefst, af øllu þvi hinu besta, sem helgad verdur þar af.

30. Og seig þú til þeirra: Þá þer so upplypted þvi besta þar af, þá skal þad reiknast Levitunum til, líka sem ein inntekt af kornhlødunne, og líka sem ein inntekt af vínpressunne.

31. Og þetta meiged þer eta á øllum stødum, þer og ydar børn, þvi þad eru ydar laun fyrer ydra þionústu í samkundu-tialldbúdenne, so hladed eigi á ydur syndum þar med, þá þer upplypted þvi besta þar af, og vanhelged eigi þad sem Israels børn helga, so skulud þer eigi deya.

## 19. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen og Aaron, og sagde:

2. Þesse skickun skal vera eitt løgmál, sem Drottinn hefir boded og sagt. Seig til Israels barna: ad þeir leide eina rauda ku til þín, án lyta, sem engann vanka hefir á ser, og sú sem enn hefir ecki ok bored.

3. Og fáed prestenum Eleasar hana í hendur, hann skal færa hana út fyrer herbúdernar, og láta slátra henne þar fyrer ser.

4. Og presturenn Eleasar skal taka af hennar blóde med sínum fingre, og støckva þvi strax siøsinnum mót samkundu-tialldbúdenne,

5. Og láta uppbrenna kúna fyrer ser, bæde hennar húd og helld, og so hennar blod og myke.

6. Og presturenn skal taka Cedrus tre, og ysop, og purpura ull, og kasta þvi uppá þá brenndu kúna.

7. Og hann skal þvo sín klæde, og bada sinn líkama í vatne, og fara so inn í herbúdernar, og vera óhreinn til kvøllds.

8. Og sá sem hana brennde skal þvo sín føt í vatne, og bada sinn líkama í vatne, og vera óhreinn til kvøllds.

9. Og einn madur, sá sem hann er hreinn, skal samansafna øskunne af kúnne, og hella henne útfyrer herbúdernar, á hreinann stad, so hún meige vera þar geymd fyrer almúgann af Israelis børnum, til eins ádreisingar vatns, þvi þad er eitt synda-offur.

10. Og sá same sem øskunne safnade af kúnne skal þvo sín klæde, og vera óhreinn til kvøllds. Þetta skal vera ein eylíf skickan fyrer Israels børn, og fyrer þá útlendu, sem búa á medal ydar.

11. Hver sem kemur vid nockurn daudann Mann sá skal vera óhreinn í siø daga,

12. Hann skal med þessu (vatne) leysa sig af syndinne, þann þridia dag, og þann siøunda dag, so er hann hreinn. Enn ef hann leyser sig eigi af syndenne, þann þridia dag, og þann siøunda dag, þá verdur hann eigi hreinn.

13. Enn ef nockur snerter daudann Mann, og vill eigi leysa sig af syndenne, sá gerer Drottins tialldbúd óhreina, og soddan sál skal afmást af Israel, þvi ad dreisingar vatne er eigi stockt á hann, so er hann óhreinn, so leinge sem hann lætur sig eigi hreinsa þar af.

14. Þetta er løgmál, þá einn

madur deyr í tialldbúd, hver sem inngeingur í sama tiálld, og allt þad sem er í tialldenu skal vera óhreint í siø daga,

15. Og hvert oped ker sem eigi er lok yfer, eda bunded yfer, þad er óhreint,

16. Og hver sem hrærer vid nockurn sem sleigenn er til dauds út á mørkenne med sverde, eda vid nockurn annann, sem ødrú vís er daudur, eda vid Manns bein, eda grøf, hann er óhreinn í siø daga.

17. So skulu þeir nú taka fyrer þann enn óhreina, af þeirre brenndu syndaoffurs øsku, og láta rennanda vatn þar út yfer í eitt ker,

18. Og einn hreinn madur skal taka ysop og dífa í vatned, og støcka á tialldbúdena, og øll ker, og allar sáler sem þar inne eru, og líka þann sem komed hefir vid þess dauda Manns bein, eda íhel sleiginn, eda vid frammlidenn, eda vid grøf.

19. Þá skal sá hreine støcka á þann óhreina á þridia deige, og á siøunda deige, og á siøunda deige skal hann leysa hann, og hann skal þvo sín klæde, og lauga sig í vatne, þá verdur hann hreinn um kvøllded.

20. Hver sem verdur óhreinn, og vill eigi láta sig afleysa, þess sál skal afmád verda frá almúganum, þvi hann hefir gert Drottins helgedom óhreinnann, og er eigi ádreyfdur med dreifingar vatnenu, þar fyrer er hann óhreinn.

21. Og þetta skal vera þeim ein eylíf skickan, og sá sem støcker dreifingar vatnenu, hann skal og þvo sín klæde, og hver sem snerter dreifingar vatned, sá skal vera óhreinn til kvøllds.

22. Og allt þad hann kemur vid verdur óhreint, og hver sál sem snerter hann, sú skal vera óhrein til kvøllds.

## 20. Capitule.

1. Og Israels børn komu med øllum almúganum í þá eydemørku Zin, á þeim fyrsta mánude, og fólked lá í Kades, og þar andadest Maria, og var þar jørdud.

2. Og almúgann brast vatn, og safnadest samann í mót Mose og Aaron,

3. Og almúgenn þráttade í gegn Mose, og sagde: æ! Gud giæfe ad ver hefdum dáed, þar sem vorer bræður dóu fyrer Drottni,

4. Þvi leiddu þid Guds alþydu hingad í þessa eydemørku, ad ver skylldum her so deya med voru kvikfe,

5. Og þvi færdud þid oss af Egyptalande hingad í þennann vondann stad, þar Menn kunna eigi ad sá; þar hverke vaxa fíkiur, ne víntre, og eigi granata eple, og ad auk þessa er her eigi vatn ad drecka?

6. Enn Moses og Aaron geingu frá almúganum til samkunde-tialldbúdardyranna, og fellu framm á sínar ásienur, og dyrdenn Drottins birtest þeim,

7. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

8. Tak þinn staf, og samansafna almúganum, þú og þinn broder Aaron, og tala þú vid steininn fyrer þeirra augum, þá mun hann gefa vatn af ser, so skalltu leida þeim vatn af þeim steine, og gefa almúganum ad drecka, og hans fenade.

9. Þá tók Moses stafenn fyrer Drottini, sem hann hafde bifalad honum.

10. Og Moses og Aaron samansøfnudu almúganum til steinsins, og sagde til þeirra: heyred þer óhlyduger, munum ver geta leidt ydur vatn af þessum steine?

11. Og Moses upplypte sinne hende, og sló tvisvar á steinenn med

stafnum, þá kom miked vatn út, so ad almúgenn drack, og allur þeirra fenadur.

12. Og Drottinn sagde til Mosen og Aaron: søkum þess ad þid trúdud mer eigi, og helgudud mig eigi fyrer Israels børnum, þá skulud þid eigi innleida þennann almúga í þad land, sem eg vil gefa þeim.

13. Þetta er motmælis vatn, þar sem Israels børn þráttudu í gegn Drottni, og hann helgadest á þeim.

14. Og Moses sende bod af Kades, kongi þeirra Edomitarum: Israel þinn broder lætur þer so seigia: Þú veitst allt þad erfide sem oss hefir sked,

15. Ad vorer forfedur ferdudust ofaun í Egyptaland, og ver biuggum langa æfe í Egyptalande, og ad Egyptarner høndludu illa vid oss, og vora forfedur,

16. Og ver kølludum til Drottins: hann heyrde vora raust, og sende oss einn eingel og leidde oss af Egyptalande. Og siá nú, ad ver erum nú í Kades stad, hiá þínum landamerkium,

17. Leyf oss ad fara í gegnum þitt land, ver vilium hverke ganga yfer akra ne víngorda, og eigi helldur drecka vatned af brunnunum, ver vilium fara þiodgautur, og víkia hverke til vinstre ne hægre handar, fyrr enn ver erum komner yfer þín landamerke.

18. Edomitar søgdu til þeirra: Þú skallt eigi ferdast í gegnum mig, ella vil eg fara í móte þer med sverde.

19. Israels børn søgdu til hans, ver vilium fara þann beinsta veg, og ef ver dreckum af þínu vatne, ver og vor fenadur, þá vilium ver þad bitala, ver vilium eigi annars enn ganga á fæte her í gegnum.

20. Enn hann sagde: þú skallt eigi ganga her í gegnum. Og Edomitarner drogu út í móte þeim med miklu lide, og med einnre megtugre hønd.

21. So vørnudu Edomitar Israel ad ferdast í gegnum þeirra landamerke. Og Israel veik frá þeim.

22. Og Israels børn tóku sig upp frá Kades, og komu med allann almúgann til þess fialls Hor.

23. Og Drottinn talade vid Mosen og Aaron á fiallenu Hor, hiá Edomita landamerkium,

24. Og sagde; safnest Aaron til síns folks, þviad hann skal eigi koma í þad land sem eg hefe gefed Israels børnum, þviad þer vorud mínum munne óhlyduger, hiá mótmælis vatnenu,

25. Tak Aaron og hans son Eleasar, og leid þá báda uppá fialled Hor,

26. Og fær þú Aaron af hans klædum, og fær þú hans son Eleasar í þau. Aaron skal þar safnast ser, og deya.

27. Þá gerde Moses sem Drottinn hafde befalad hønum, og þeir geingu upp á fialled Hor fyrer øllum almúganum.

28. Og Moses færde Aaron af sínum klædum, og færde hans son Eleasar í þau.

29. Og Aaron andadest þar, uppá þvi fialle, enn Moses og Eleasar geingu ofann af fiallenu. Og þá allur almúgenn sá, ad Aaron var í burt, gretu þeir hann í þriátíu daga, allt Israelis hús.

## 21. Capitule.

1. Þá Arad kongur Cananeorum, sem bío í sudur, heyrde ad Israels var komenn, á veige niosnar manna, þá bardest hann á móte Israel,

og færde burt nockra fángna af þeim.

2. Þá het Israels lydur Drottni einu heite, og sagde: þegar þú gefur þetta folk under mína hønd, þá vil eg bannfæra þeirra borger.

3. Og Drottinn heyrde Israelis raust, og gaf þeim Cananitana, og þeir bannfærdu þá, og þeirra borger, og kølludu þann stad Harma.

4. Sídann reistu þeir frá þvi fialle Hor, á veigenn, sem liggur til þess rauda hafs, ad þeir fære umkring landed þeirra Edomita.

5. Og folkenn leiddest vegaleingdenn, og talade í móte Gude, og í móte Mose: þvi færder þú oss af Egyptalande, so ad ver dœum í þessare eydemørku? Þvi her er hvørke braud ne vatn, og vorar sáler velger vid þessare lettre fædu.

6. Þá sende Drottinn brennande høggorma á medal folksins; þeir bitu folked, so ad marger dóu af Israel.

7. Þá komu þeir til Mosen og søgdu: ver høfum syndgast í þvi, ad ver høfum talad í móte Drottni, og í móte þer; bid þú Drottinn, ad hann vile taka þessa høggorma frá oss. Og Moses bad fyrer folkenu.

8. Þá sagde Drottinn vid Mosen: ger þer einn eyrorm, og reis hann upp til eins merkis, hver sem er bitenn, og lytur á hann, sá skal lifa.

9. Þá gerde Moses einn eyrorm, og reiste hann upp til eins merkis. Og þegar einn høggormur beit nockurn, þá leit sá til eyrormsins, og hellt lífe.

10. Og Israels børn foru út, og legrudu sig í Oboth.

11. Þeir foru frá Oboth, og løgdu sig í Jím, hiá Abarim fialle, í eydemørkenne, þvert yfer frá Moab, í móte sólar uppgánge.

12. Þeir ferdudust þadan, og løgdu sig hiá þeim læk Sared.

13. Þá drou þeir þar frá, og løgdu sig þessumeigenn Arnon, sem liggur í eydemørku, og strecker sig þadan út til Amoritanna landamerkia, þviad Arnon er Moabs landamerke, millum Moab og þeirra Amorita.

14. Þar fyrer seiger í bardaga bók Drottins: ad Vaheb í Supha og Arnons lækur,

15. Og lækianna uppsprettur, sem táka til borgar Ar, og beyger sig, er Moabitanna landamerke.

16. Og þeir ferdudust þadann, til eins brunns, þad er sá brunnur, sem Drottinn talade um vid Mosen: samansafna folkenu, eg vil gefa þeim vatn.

17. Þar saung Israel þessa vísu; og einn saung til annars yfer brunnenum,

18. Þesse er sá brunnur sem høfdingiarner hafa grafed, þeir gøfugu á medal folksins hafa grafed hann, fyrer læremeistarann og þeirra stafe. Þeir fóru frá þessare audn til Mathana,

19. Og frá Mathana til Nahaliel, og frá Nahaliel til Bamoth,

20. Og frá Bamoth til þess dals, sem liggur í Moabitanna lande, til þess háfa fiallsins Pisga, sem breidest vid eydemørkenne.

21. Og Israel sende bod til Sihon Amorita kongs, og let seigia hønum:

22. Leyf mer ad fara í gegnum þitt land: ver vilum eigi víkia út á akrana; og eigi í víngardana; ver vilum og eigi drecka vatned af brunnunum; ver vilum fara þiodbrauter, þar til ad ver komum í gegnum þín landamerke.

23. Enn Sihon villde eigi gefa Israel fararleyfe í gegnum sín landa-

merke, helldur safnade hann ad ser øllu sinu fólke, og dró út í mót Israel í eydemørkena, og þá hann kom til Jachza, bardest hann vid Israel.

24. Enn Israel sló hann med sverds eggium, og inntók hans land frá Arnon, og allt til Jabok, og allt til Ammons barna, þvi Ammons barna landamerke voru rambygd.

25. So tók Israel alla þessa stade, og bió í øllum Ammoritanna stødum, í Hesbon, og øllum hennar dætrum,

26. Þviad borgenn Hesbon heyrde Sihon Ammoritanna konge til, og hann hafde ádur strídt ímóte kongenum þeirra Moabitarum, og teked hans land frá hønum, allt til Arnon.

27. Her af hafa Menn þetta máltæke: komed til Hesbon, ad byggia og uppreisa Sihons stad,

28. Þvi þar er útfarenn elldur af Hesbon, einn loge af Sihons stad, sem hefir uppeted Ar þeirra Moabitanna, og borgarana þeirrar háfu Arnon.

29. Vei þer Moab, þú Camos folk ert fortapad: hans syner hafa vered slegner á flótta, og hans dætur voru herteknar, hafdar í burt til Sihons Amorita kongs.

30. Þeirra vegsemd er ordenn ad engo, frá Hesbon og inn til Dibon, hún er eydeløgd allt til Nopha, sem nær til Medba.

31. So bió Israel í Ammoritanna lande.

32. Og Moses sende niosnarmenn út til Jaeser, og þeir unnu hennar dætur, og inntóku þá Ammorita sem þar voru inne.

33. Og þeir sneru før, og drogu upp ad veigenum til Basan, þá dró og kongurenn af Basan út ímóte þeim, med allt sitt folk ad beriast í Ebrei.

34. Og Drottinn sagde til Mosen: óttast hann eigi, þvi eg hefe gefed hann í þínar hendur, med lande og lydum, og þú skallt gera vid hann, líka sem þú gerder vid Sihon Ammoritanna kong, sem bío í Hesbon.

35. Og þeir slóu hann og hans sonu, og allt hans folk, so þar var eigi einn efter, og inntóku landed.

## 22. Capitule.

1. Epter þetta fóru Israels børn áfram, og settu herbúder sínar á vøllum Moabitanna, hinumeigenn Jordanar, gagnvart Jericho.

2. Þá Balak, sonur Zipors, sá allt þad sem Israel hafde gert þeim Ammoreis,

3. Og ad Moabitarner voru miøg hrædder fyrer þessu folke, sem so var margt, og ad Moabitarner voru óttaslegner fyrer Israelis børnum,

4. Sagde hann til ølldunga þeirra Madianita: nú mun þesse flockur upp eta allt þad sem er í kringum oss, líka sem uxar upp eta grased á mørkenne. Enn Balak, sonur Zipors, var í þann tíma kongur þeirra Moabita.

5. Og hann sende bod til Balaams, Beors sonar, til Pethor, hann bío hiá vatnenu í lande barna síns folks, ad þeir skylldu kalla hann, og seigia hønum so: siá, þar er eitt folk komed af Egyptalande, þad hylur andlit jardarennar, og liggur gagnvart mer.

6. Þar fyrer kom nú og bølva fyrer mig þessu fólke, þvi þad er sterkara enn eg, ef eg mætte slá þad, og burt ryma þad af landenu, þvi eg veit, hverum þú blessar, hann er blessadur, og hverum þu bølvar, hann er bølvadur.

7. Og ølldungar þeirra Moabita fóru med þeim ellstu af Madianit-

um, og høfdu spádoms launenn í
sínum høndum, og þeir geingu inn
til Balaam, og søgdu hønum ord
Balaks.

8. Og hann sagde til þeirra, vered
her í nótt, so vil eg gefa ydur
svar aftur, epter því sem Drottinn
seiger mer. So voru høfdingiar
Moabitarum hiá Balaam.

9. Og Gud kom til Balaam, og
sagde: hvad er það fyrer folk, sem
er hiá þer?

10. Balaam sagde til Guds, Balak,
sonur Zipors, Moabitarum
kongur, sendi þá til mín,

11. Se, þar er eitt folk komed
af Egyptalande, og hylur andlit
jardar, so kom nú, og bølva þeim
fyrer mig, ef eg mætte heriast vid
þá, og reka þá burt.

12. Gud sagde til Balaam, far
eigi med þeim, og ey helldur skalltu
bølva þessu fólke, því það er blessad.

13. Þá stód Balaam árla upp
um morgunenn, og sagde til høfdingia
Balaks, fared heim í ydart
land, því Drottin vill eigi leyfa
mer ad fara med ydur.

14. Høfdingiarner þeirra Moabita
tóku sig upp, komu til Balaks,
og søgdu; Balaam vill eigi fara
med oss.

15. Þá sende Balak enn í annad
sinn, fleyre og veglegre høfdingia
helldur enn það hiner voru.

16. Þá þeir komu til Balaam,
søgdu þeir til hans: so lætur Balak,
sonar Zipors, seigia þer: affaka þig
eigi ad koma til mín.

17. Því eg vil gera þer stora æru,
og hvad þú seiger mer til, það vil
eg gera, eg bid, kom og bølva fyrer
mig þessu fólke.

18. Balaam svarade, og sagde
til þenara Balaks: þó Balak villde
gefa mer sitt hús fullt med silfur og
gull, þá kynne eg þó eigi ad yfertroda
ord míns Drottins Guds, hverke
líted edur miked ad gera.

19. Vered þó sem ádur her og
þessa nott, so eg meige reyna til,
hvad Drottinn vill enn framar meir
tala vid mig.

20. Þá kom Gud um nottena
til Balaam, og sagde til hans, ef
þesser Menn eru komner hingad ad
kalla þig, þá tak þig upp og far med
þeim, enn þó skalltu það gera sem
eg seige þer.

21. Þá stod Balaam upp um
morgunenn og sødlade øsnu sína,
og fór af stad med Moabita høfdingium.

22. Enn Gud reiddest miøg, ad
hann ferdadest þangad. Og eingell
Drottinns geck framm í veigenn,
ad standa hønum ímóte, enn hann
reid á sinne øsnu, og hafde tvo
þenara med ser.

23. Og asnann sá eingel Drottins
standa í veigenum, og eitt brugded
sverd í hans hende. Og asnann
veik af gøtunne, og geck á akurenn,
enn Balaam sló hana, so hún skyllde
ganga veigenn.

24. Þá geck eingell Drottins
framm á einn þraungann stíg, hiá
víngardum, þar gardar voru á bádar
sídur.

25. Enn sem asnann sá eingil
Drottins, þreyngde hún ser upp ad
gardenum, og kreiste Balaams fót
vid gardenn, og hann sló hana enn
meir.

26. Þá geck eingell Drottins enn
leingra framm, og á einn midann
stíg, þar sem hverge mátte afvíkia,
hverke til vinstre ne hægre hlidar.

27. Og sem asnann sá eingel
Drottins, fell hún nidur á sín kne
under Balaam. Þá vard Balaam
miøg reidur, og hann sló øsnuna
med stafnum.

28. Þá upplauk Drottinn munne

øsnunnar; og hún sagde til Balaam: hvad hefi eg þess gert þer, ad þú hefir nú sleiged mig þrisvar?

29. Balaam sagde til øsnunnar: fyrer þad þú hæder mig, være so vel, ad eg hefde nú sverd í minne hende, skyllda eg drepa þig.

30. Asnann svarade Balaam: er eg eigi þín asna, þeirre þú hefir rided þína tíd inn til þessa dags, hef eg nockurn tíma vered vøn ad gera þer soddann? hann sagde: nei.

31. Þá upplauk Drottinn augum Balaams, so ad hann sá eingel Drottins standa í veigenum, med brugded sverd í hans hende. Og Balaam hneigde og beigde sig nidur á sína asíónu.

32. Og eingell Drottins sagde til hans, hvar fyrer hefir þú sleiged so þína øsnu nú þrisvar sinnum, siá, eg em útfarenn til þess ad standa þer imóte, þvi þinn vegur er mer mótstædilegur, og asnann sá mig,

og veik þrisvar fyrer mer,

33. Enn hefde hún eigi viked fyrer mer, þá villda eg hafa sleiged þig íhel, enn láted øsnuna lífa.

34. Þá sagde Balaam til Drottins eingels: eg hefe syndgast, þvi eg visse eigi, ad þú stodst imóte mer á veigenum, og ef þesse mín reisa þocknast þer eigi, þá vil eg snúa aptur.

35. Eingell Drottins sagde til hans. Far þú med þessum mønnum; enn þú skallt eigi tala neitt annad, enn þad sem eg seige þer. So fór Balaam med høfdingium Balaks.

36. Þegar Balak spurde komu Balaams, fór hann út á móte hønum til eins stadar þeirra Moabita, hver ed liggur í landamerkium Aronos, sem er hiá þeim ytstu landamerkium,

37. Og sagde til hans, sende eg eigi ódd til þín, og let kalla þig? þvi komstu þá eigi til mín? eda meinar þú, ad eg gete eigi virdt þig?

38. Balaam svarade hønum: siá, eg em komenn til þín, enn hvernenn má eg nockud annad mæla, enn þad sem Gud leggur mer í munn, þad mun eg tala.

39. So fór Balaam med Balak, og þeir komu í Gatnastadenn.

40. Og Balak offrade nautum og saudum, og sende epter Balaam, og þeim høfdingium sem voru hiá hønum.

## 23. Capitule.

41. Um morgunenn tók Balak Balaam, og hafde hann uppá Baals hæd, so hann mætte siá þann ytsta þyrpingar brodd folksins.

1. Og Balaam sagde til Balak: ger mer her siø alltare, og skicka mer hingad siø uxa og siø hrúta.

2. Balak gerde sem Balaam sagde: og þeir báder, Balak og Balaam, færdu fórner, iá, upp á hveru alltare einn uxa og einn hrút.

3. Og Balaam sagde til Balak: stattu hiá þínu brenne-offre, eg vil gánga burt, ef ske mætte, ad Drottinn mæte mer, so eg kunngere þer, hvad hann undervísar mer.

4. Og hann geck skyndelega af stad. Og Drottinn mætte Balaam, og hann sagde til hans: eg hefe tilbued siø alltare, og offrad einum uxa og einum hruti yfer hveru alltare.

5. Þá lagde Drottinn orded í munn Balaams, og sagde: gacktu til Balak aptur, og seig þú so.

6. Og sem hann kom til hans aptur, siá, þá stód hann hiá sinne brenne-fórn, med øllum Moabitanna høfdingium.

7. Þá upp hóf Balaam sína rædu,

og sagde: af Syria hefir Balak Moabitanna kongur láted kalla mig, frá fiöllunum í mót austre, kom og bølva fyrer mig Jacob; kom, formæl þú Israel.

8. Med hveru móte má eg bølva þeim sem Gud eigi bølvar? eda hvernig má eg formæla þeim sem Gud eigi formæler?

9. Þvi eg se þá vel af þessum háfum biorgum, og af hædum skoda eg þá. Siá! þad folk skal seri lage búa, og eigi reiknast á medal heidingia.

10. Hver kann ad telia dupt Jacobs, eda tøluna af einum fiorda parte Israels? mín sál deye rettlátra Manna dauda, og mitt hid sídarsta verde líka sem þeirra hid sídarsta.

11. Þá sagde Balak til Balaam: hvad gerer þú mer? eg let sækia þig ad bølva mínum óvinum, og siá: þú blessar þá!

12. Hann svarade, og sagde: skal eg þad eigi hallda og tala sem Drottinn leggur mer í munn?

13. Balak sagde til hans: eg bid, kom med mer á einn annan stad, af hverum þú kanut ad siá halann af þeim, og þo ei þá alla, og bølva þeim þar, fyrer mig.

14. Og hann færde hann uppá vídt slettlende, á hædena af Pisga, og byggde siø alltare, og offrade yfer hveru alltare einum uxa, og einum hrút.

15. Og sagde til Balak: stattu her hiá þinne brennefórn, eg vil taka vara þará,

16. Og Drottinn mætte Balaam, og gaf hønum orded í hans munn, og sagde: far til Balak aptur, og tala so.

17. Og sem hann kom til hans aptur, siá; þá stód hann hiá sínu brenneoffre, med Moabitanna høfdingium,

18. Og Balak sagde til hans: hvad sagde Drottinn? og hann upphóf sitt mál, og sagde: rís upp Balak, og heyr þú til; gaumgiæf þú hvad eg seige, þú sonur Zipors.

19. Gud er eigi madur ad hann liuge; eigi helldur Manns barn, so hann angre nockud: skyllde hann seigia nockud, og gera þad eigi? skyllde hann tala nockud, og hallda þad eigi?

20. Siá, eg em hafdur hingad ad blessa: eg blessa; og má þvi eigi umbreita.

21. Hann ser eigi illsku í Jacob, og athugar eigi mædu í Israel. Drottinn hans Gud er hiá hønum, og kongsins lúdrar eru á medal þeirra.

22. Gud færde þá af Egyptalande: hans hugprýde er líka sem eins einhyrnings,

23. Þvi ecke fiølkinge er í Jacob, og eingenn spásøgn í Israel. Á sinum tíma skulu Menn tala um Jacob og Israel, hverar dádsemder Gud gerer.

24. Siá þú, þad folk skal upp standa sem eitt ungt Leon, og þad skal upp hefia sig sem eitt Leon, þad skal eigi leggia sig fyrr enn þad uppetur herfánged, og dreckur blod ed af þeim, sem shel eru slegner.

25. Þá sagde Balak til Balaam, þú skallt hverke bølva þeim ne blessa.

26. Balaam svarade og sagde til Balak: hefi eg eigi sagt þer, ad allt þad sem Drottinn seiger, þad mun de eg gera?

27. Balak sagde til hans: kom þo sem ádur, eg vil leida þig til eins annars stadar, ef ske mætte, ad Gude kynne þar ad þocknast, ad þú bølvader þeim þar fyrer mig.

28. Og hann hafde hann esst

uppá fialled Peor, sem ad horfer til eydemerkur.

29. Og Balaam sagde til Balak: ger mer her siø alltare, og fá mer siø uxa, og siø hrúta.

30. Balak gerde sem Balaam sagde, og offrade einum uxa, og einum hrút yfer hveru alltare.

## 24. Capitule.

1. Sem Balaam sá nú, ad þad þocknadest Drottni, ad hann blessade Israel, fór hann eigi í burtu, líka sem ádur, epter siølkinge, helldur snere hann sinne ásionu strax til eydemerkur.

2. Og upp hóf sín augu, og sá Israel, hvernenn þeir láu, epter sínum kinkvíslum, og Guds ande kom yfer hann,

3. Og hann tók til ad tala, og sagde: Þad seiger Balaam, sonur Beors; þad seiger sá madur, hvers augum er upp loked,

4. Þad seiger heyrare gudlegra mála, sem ser opennberan þess allsmegtugasta, hann sem fellur, og augunn verda upp lokenn á.

5. O! hversu føgur eru þín landtiølld, Jacob, og þín hybíle, Israel!

6. Líka sem læker útbreida sig, og sem alldingardarner vid vøtnenn, þau land-tiølld, er sialfur Drottinn plantar, sem Cedrus tre hiá vatne.

7. Þar mun renna vatn af hans skiolu, og hans fád skal blífa eitt stórt vatn, hans kongur skal verda hærre enn Agag, og hans ríke skal upp hefia sig.

8. Gud leidde hann af Egyptalande; hans hugprýde er líka sem eins einhyrnings; hann mun upp svelgia heidingiana þeir ed hann offsækia, og í sundur melia þeirra bein, og slá þá smátt med sínum skotum.

9. Hann hefir lagt sig nidur sem eitt Leon, og sem eitt ungt Leon, hver vill upp reisa sig í mót hønum? blessadur er sá, sem þer blessar, og bølvadur er sá sem þer bølvar.

10. Þá vard Balak gramur og reidur uppá Balaam, og sló høndum samann, og sagde til hans: eg let sækia þig, so ad þú skyllder bølva mínum óvinum, og siá; þú hefir nú þrisvar blessad þá.

11. Far nu heim í þinn stad; eg þeinkti mer, ad veita þer heidur, enn Drottinn hefir sirrt þig þeirre æru.

12. Balaam svarade hønum; hvert talade eg eigi þetta til þinna sendemanna, sem þú sender til mín, og sagde?

13. Þott Balak gefe mer sitt hús fullt af gulle og silfre, þá kann eg eigi ad gera í móte Drottins orde, hverke hid vonda, ne hid goda, epter mínu hiarta, helldur hvad Drottinn seiger mer, þad munde eg tala.

14. Og sig nú, þá eg fer til míns folks, kom þu þá, so vil eg undervísa þer, hvad þetta folk mune gera þínu folke, á seinustum tímum.

15. Og hann upphóf sitt mál, og sagde: þetta seiger Balaam, sonur Beors: þad seiger sá madur, hvers augum upp er loked,

16. Þad seiger heyrare gudlegra mála, og sá sem hefir vísdom þess allra-hæsta, sá sem ser opennberan þess almáttuga, hann sem fellur, og augunum er upp loked á.

17. Eg mun siá hann, enn eigi nú, eg mun skoda hann, enn eigi í nánd. Þar mun upp renna ein stiarna af Jacob, og ein ríkes sprota skal upp koma af Israel, og hann mun í sundur meria Moabitanna høfdingia, og eydeleggia øll børn Seths.

18. Edom mun verda hans eign,

og Seir skal vera sínum óvinum undergefenn, enn Israel skal hafa sigurenn.

19. Af Jacob mun sá koma ed yfer-drottnar, og eydeleggur þad sem epter er af stødunum.

20. Og þá hann sá Amalechitana, upp hóf hann sitt mál, og sagde: Amalech sá fyrste á medal heidingia, enn med þad sídsta skalltu med øllu eydeleggiast.

21. Og sem hann sá Kenitana, hóf hann sitt mál, og sagde: ramm byggt er þitt heimile, og þú hefir byggt þitt hreidur í biargskorum,

22. Enn þú Kain, þú skallt brennast, þá Assur flytur þig fángenn burt.

23. Og hann upp hóf enn sitt mál, og sagde: oh! hver mun lifa þá Gud mun gera þetta?

24. Og skipenn af Chitim skulu fordiarfa Assur og Eber, og hann mun og so alldeilis eydeleggiast.

25. Og Balaam biost af stad, og for þadann, og kom til síns stadar aptur, enn Balak fór sinn veg.

## 25. Capitule.

1. Og Israel bío í Sittim. Og folked tók til ad fremia Hóraner med dætrum þeirra Moabita,

2. Hveriar ad budu folkenu til offurs sinna skúrgoda. Og folked át, og tilbad þeirra skurgod,

3. Og Israel feste sig ved Baal Peor, þá gramdest reide Drottins yfer Israel,

4. Og hann sagde til Mosen: taktu alla høfdingia folksins, og heing þú Drottni þá upp í móte sóluune, so ad grimmdar reide Drottins snuest frá Israel.

5. Og Moses sagde til Israels domenda, hver drepe sitt folk, sem sig hefir gefed til Baal Peor.

6. Og siá, einn madur af Israels børnum kom, og leidde eina Madianiska kvinnu í bland sinna brædra, ad ásiáanda Mose og øllum almúganum Israelis barna, þeir ed gretu fyrer samkundu tialldbudardyrum.

7. Enn er Pinehas, sonur Eleasar, sonar Aarons prests, sá þad, stód hann upp frá almuganum, og tók eitt spiot í hønd ser,

8. Og geck inn í hóru-húsed, epter þeim Israelis Manne, og lagde þau bæde, þann Israelis Mann, og so kvinnuna í gegnum lísed. Þá stilltest sú plága strax, sem komenn var yfer Israels børn.

9. Og þar fellu í þeirre plágu fiórar og tuttugu þusunder Manna

10. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

11. Pinehas, sonur Eleasar, sonar Aarons prests, hann hefir snued minne reide frá Israels børnum, fyrer sitt vandlæte minna vegna, so eg eigi í minne vandlætingu eydelegge Israels børn.

12. Þar fyrer segdu: siá, eg gef hønum sáttmála míns fridar,

13. Hann, og hans sæde epter hann, skulu hafa þann sáttmála til eins eylífs kennemannskapar, sokum þess, ad hann vandlætte vegna síns Guds, og forlíkte Israels børn.

14. Enn sá Israelite sem var sleigenn med þeirri Madianiskre kvinnu, het Simri, sonur Salu, einn høfdinge yfer Simeonita fødurs huse.

15. Enn sú Madianiska kvinna, sem og sleigenn var het Casbi, dotter Zur, sem var høfdinge einnrar kinkvíslar þeirra Madianita.

16. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

17. Gered skada þeim Madianitis, og slaed þá,

18. Því þeir hafa gert ydur skada

med sínum svikum, sem þeir veittu ydur fyrer Peor, og fyrer þeirra syster Casbi, þess Madianita høfdingia dottur, sem sleigenn var á plágunnar deige, fyrer Peos saker og plágann þar epter kom.

## 26. Capitule.

1. Og Drottinn talade til Mosen, og Eleasar, sonar Arons prests,
2. Reikned nidur summu alls almúgans Israelis barna, frá tutugu ára gømlum, og þadann af elldre, epter þeirra fedra húsum, alla þá sem særer eru til bardaga í Israel.
3. Og Moses og Eleasar prestur tøludu vid þá á vøllum þeirra Moabita, hiá Jordan, gegnt Jericho,
4. Þeir sem voru tutugu ára, og þadann af elldre, so sem Drottinn hafde boded Mose, og Israels børnum, sem fared høfdu af Egyptalande.
5. Ruben Israelis frumgetne sonur. Þesse voru Rubens børn, Hanoch, af hverum Hanochita ættkvísl kemur. Pallu, af hverum ad kemur Palluita ættkvísl.
6. Hezron, af hverum Hezronita ættkvísl kemur. Charmi, af hverum Charmita ættkvísl kemur.
7. Þetta eru attkvísler frá Ruben, og þeirra tala var, þriár og fiørutíu þusunder, siø hundrud og þriátíu.
8. Enn Pallu børn voru Eliab,
9. Og Børn Eliab voru Nemuel, og Dathan og Abiram. Þad er sá Dathan og Abiram, sem voru nafnkunnuger á medal almúgans, þeir sem settu sig upp ímót Mose og Aaron, med þeim selskab Korah, þá þeir settu sig upp ímóte Drottni.
10. Og jørdinn upplet sinn munn, og svelgde þá, med Korah, þá sá flockur dó, og elldurenn uppsvelgde tvø hundrud og fimmtíu Menn, og urdu til eins merkis.
11. Enn børn Korah dóu eigi.
12. Børn Simeons í þeirra ættkvíslum voru, Nemuel; þadann er komenn Nemuelitanna ætt. Jamin, þadann er komenn Jaminita ættkvísl. Jachin, þar af kemur Jachinita ættkvísl.
13. Serah, þadann kemur Serahitanna ættkvísl. Saul, þar af er komenn Saulitanna ættkvísl.
14. Þesse kinslód er komenn af Simeon, tvær og tuttugu þusunder, og tvø hundrud.
15. Børn Gads í þeirra ættkvíslum voru, Ziphon, þar af kemur Ziphonitanna ættkvísl. Haggi, þar af kemur Haggitanna ættkvísl. Suni, þar af kemur Sunitanna ættkvísl,
16. Osni, þar af kemur Osnitanna ættkvísl. Eri, þar af er komenn Eritanna ættkvísl.
17. Arod, þar af er komenn Aroditanna ættkvísl. Ariel, þar af er komenn Arielitanna ættkvísl.
18. Þetta eru ættkvísler barna Gads, epter þeirra tølu, fiørutíu þusunder og fimmhundrud.
19. Juda børn, Ger og Onan, hverer báder dóu í Canaans lande.
20. Enn Juda børn í þeirra kinkvíslum voru þesse; Sela, þar af kom Selanitanna ættkvísl. Perez, þar af er komenn Perezitanna ættkvísl. Serah, þar af er komenn Serahitanna ættkvísl,
21. Enn børn Perez voru, Hezron, þar af er komenn Hezronita ættkvísl. Hamul, þar af kemur Hamulita ættkvísl.
22. Þetta eru Juda kinkvísler í þeirra tølu, sex og siøtíu þusunder, og fimm hundrud.
23. Isaschars børn í þeirra kinkvíslum voru; Thola, þar af er kom-

enn Tholaitanna ættkvísl. Phua, þaraf er komenn Phuanitanna ættkvísl.

24. Jasub, þaraf er komenn Jasubitanna ættkvísl. Simron, þar af kemur Simronita ættkvísl.

25. Þessar eru Isaschars ættkvísler í sinne tølu, fiórar og sextíu þusunder, og þríu hundrud.

26. Sebulons børn í þeirra kinkvíslum voru, Sared, þaraf kemur Saredita ættkvísl; Elon, af hønum kemur Elonita ættkvísl; Jahelel, þar af er komenn Jahelelita ættkvísl,

27. Þessar eru ættkvísler Sebulon, epter þeirra tølu, sextíu þusunder, og fimm hundrud.

28. Børn Josephs í þeirra kinkvíslum voru, Manasse og Ephraim

29. Enn børn Manasse voru, Machir, þaraf er komenn Machirita kinkvísl. Machir gat Gilead, þaraf er komenn Gileadita ættkvísl.

30. Enn þesse eru børn Gilead, Hieser, þar af er komenn Hieserita ættkvísl. Helek, þar af er komenn Helekita ættkvísl.

31. Asriel, þar af er komenn Asrielita ættkvísl: Sichem, þar af er komenn Sichemita ættkvísl.

32. Smida, þar af er komenn Smidita ættkvísl. Hepher, þadann er komenn Hepherita ættkvísl.

33. Enn Zelaphehad var sonur Hepher, og hafde enga syne, helldur dætur, sem hetu, Mahelah, Noa, Hagla, Milcha, Thirza.

34. Þessar eru ættkvísler Manasses, í sinne tølu, tvær og fimmtíu þusunder, og siø hundrud.

35. Ephraims børn í sinum kinkvíslum voru Suthelah, þar af er komenn Suthelahitanna ættkvísl. Becher, þar af er komenn Becherita ættkvísl. Thahan, þar af er komenn Thahanita ættkvísl.

36. Enn børn Suthelah voru, Eran, þar af er komenn Eranita ættkvísl.

37. Þessar eru Ephraims barna ætter, í þeirra tølu, tvær og þriátíu þusunder, og fimm hundrud. Þetta eru børn Josephs í sinne ættkvísl.

38. Benjamins børn í þeirra kinkvíslum voru, Bela; þar af kemur Belaita ættkvísl. Asbel, þar af kemur Asbelita ættkvísl. Ahiram, þar af kemur Ahiramitanna ættkvísl.

39. Supham, þar af er komenn Suphamitanna ættkvísl. Hupham þar af er komenn Huphamitanna ættkvísl

40. Enn Bela børn voru her, Ard og Naeman, þar af komenn Arditanna og Naemitanna ættkvísl.

41. Þesse eru børn Benjamins í sínum kinslóðum, ad tolu, fimm og fiørutíu þusunder, og sex hundrud.

42. Børn Dans í þeirra ættkvíslum voru, Suham; þar af er komenn Suhamitanna ættkvísl.

43. Þetta var ætt Dans í sínum ættbring, og þeir voru aller samann ad tølu, fiórar og sextíu þusunder, og fiøgur hundrud.

44. Assers børn í þeirra ættkvíslum voru, Jemna; þar af er komenn Jemnita ættkvísl. Jesúi, þar af er komenn Jesúita ættkvísl. Bria, þar af er komenn Brianna ættkvísl.

45. Enn Bria børn voru Heber; þar af er komenn Heberita ættkvísl. Melchiel, þar af er komenn Melchielita ættkvísl.

46. Og dotter Assers het Sarah.

47. Þesse er ætt barna Assers, í sinne tølu, þriár og fimmtíu þusunder, og fiøgur hundrud.

48. Nephthali børn í þeirra kinkvíslum voru, Jaheziel; þar af er

komenn Jahezielita ættkvísl. Guni, þar af er komenn Gunita ættkvísl.

49. Jezer, þar af er komenn Jezerita ættkvísl. Sillem, þar af er komenn Sillemita ættkvísl.

50. Þetta eru nu kinkvísler Nephthali, í sinne tølu, siqin og fiørutíu þusunder, og fiøgur hundrud.

51. Þetta er manntals summa Israelis barna, sexsinnum hundrad þusunder, eitt þusund, siø hundrud, og þriátíu.

52. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

53. Þú skallt í sundurskipta landenu millum þessara, þeim til erfdar, epter nafnanna tølu,

54. Þú skallt gefa þeim sem marger eru, miked ad erfa, enn fám líted: serhverum skal gefa epter þeirra tølu.

55. Þó skal sundurskipta landenu med hlutkeste. Epter nafne ættkvíslanna þeirra fedra skulu þeir arf taka,

56. Þvi þú skallt útskipta þeirra Manna erfd epter hlutfalle, so sem þeir eru marger og fáer til.

57. Og þetta er summa á Levitunum, í þeirra ættkvíslum. Gerson, af hønum er komenn Gersonita ættkvísl. Kahath, af hønum er Kahathita ættkvísl. Merari, af hønum er Merarita ættkvísl.

58. Þesser eru Levi ættkvísler, Libnita ættkvísl, Hebronita ættkvísl, Mahalita ættkvísl, Musita ættkvísl, Korahita ættkvísl. Kahath gat Amram,

59. Og kvinna Amrams het Jochebed, dotter Levi, hver hønum fæddest í Egyptalande, og hun átte vid Amram, Aaren og Mosen, og Mariam þeirra syster.

60. Enn Aarone fæddest Nadab, Abihu, Eleasar, og Ithamar.

61. Enn Nadab og Abihu dóu, þá þeir offrudu annarlegum ellde fyrer Drottni.

62. Og summann á þeim var þriár og tuttugu þusunder, allt karlkins, mánadar gamallt, og þadann af elldra. Þviad þeir voru eige reiknader á millum Israels barna, þvi þeir høfdu enga arftoku, á medal Israels barna.

63. Þetta er summann Israelis barna, sem Moses, og presturenn, Eleasar tøldu á Moabitanna vøllum, hiá Jordan, gagnvart Jericho.

64. Medal hverra eingenn var af þvi manntale, þá Moses, og prestrenn Aaron tøldu Israels børn í eydemørku Sinai.

65. Þvi Drottinn hafde sagt til þeirra, ad þeir skylldu vissulega deya í eydemørkenne, og þar var eingenn epter, utann, Caleb, sonur Jephunne, og Josua, sonur Nuns.

## 27. Capitule.

1. Og dætur Zelaphehads, sonar Hephers, sonar Gilead, sonar Machers, sonar Manasse, á medal kinkvísla Manasses, sonar Josephs, med nafne, Mahela, Noa, Hagla, Milcha, og Thirza,

2. Komu og geingu framm fyrer Mosen, og prestenn Eleasar, og til høfuds Mannanna, og til alls almúgans, utann fyrer samkundunnar tialldbúdar dyrum, og søgdu,

3. Fader vor dó í eydemørku, og var eigi í selskap þess almúga sem sig reiste í móte Drottni, í flocke Korah, helldur andadest hann í synd sinne, og átte enga sonu,

4. Þvi skal þad vórs fødurs nafn under lok lída í hans kinkvísl, þo hann hafe engann son átt? gef oss og nockra eign á medal vorra fødurbrædra.

5. Moses flutte mál þeirra fyrer Drottinn,

6. Og Drottinn sagde til hans,
7. Zelaphehads dætur hafa rett talad, þú skallt gefa þeim erfda gods á medal þeirra fødurbrædra, og þú skallt láta þeirra fødur arf koma til þeirra.
8. Og seigdu til Israels barna: Þegar nockur deyr og hefir eigi syne epter, þá skulud þer víkia hans arfe til hans dætra.
9. Enn hafe hann enga dottur, þá skulud þer gefa hans brædrum þann arf.
10. Eige hann eigi brædur, þá skulud þer gefa þann arf hans fødur brædrum.
11. Hafe hann eigi fødurbrædur, þá skulud þer gefa hann hans nærstu ættingum sem hønum ern skylldet í hans ætt, so hann eigneſt hann. Þetta skal vera løgmál og rettur Israels barna, so sem Drottinn hefir bifalad Mose.
12. Og Drottinn sagde til Mosen: gack uppá þetta fiall Abarim, og skoda landed, þad eg mun gefa Israels børnum.
13. Og þá þú hefir sed þad, þá skalltu safnaſt til þíns folks, líka sem þinn broder Aaron er (þangad) safnadur.
14. Sokum þeſs, ad þid vorud mínum ordum óhlydnger í þeirre eydemørku Zin, þann tíma ad almúgenn þráttode þar, þá þid skylldud helga mig fyrer þeim, fyrer vatned, þad er motmælis vatned í Kades, í eydemørku Zin.
15. Og Moses talade vid Drottinn, og sagde:
16. Drottinn, sem er Gud andanna alls holds, hann vile setia einn Mann yfer þennann almúga,
17. Þann sem kann ad ganga út og inn fyrer þeim, og leida þá út og inn, so ad Drottins søfnudur se eigi líka sem sauder þeir ed engann hyrder hafa.
18. Og Drottinn sagde til Mosen: tak þú Iosua, son Nuns, til þín, sem er sá Madur, í hverum andenn er, og legg þínar hendur yfer hann,
19. Og skicka hann fyrer prestenn Eleasar og fyrer allann almúgann, og gef hønum bífalning fyrer þeirra augum,
20. Og legg þína dyrd yfer hann, so ad allur almúge Israels barna veite hønum hlydne.
21. Og hann skal ganga framm fyrer prestenn Eleasar, hann skal þiggia rád af hønum epter Urims vísu fyrer Drottine. Epter hans munne skal bæde hann, og øll Israels børn med hønum ferdaſt út og inn, og allur almúgenn.
22. Moses gerde sem Drottinn hafde boded honum, og tók Iosua, og skickade hann fyrer prestenn Eleasar, og fyrer allann almúgann,
23. Og lagde sína hønd yfer hann, og baud hønum so sem Drottinn hafde talad vid Mosen.

## 28. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:
2. Biod þú Israels børnum, og seig þú til þeirra, fornfæring af mínu braude, sem er eitt offur til eins sæts ilms, skulud þer hallda á sínum tíma, ad þer offred mer þvi. Og seig til þeirra.
3. Þetta eru þær forner sem þer skulud offra Drottni, árs gømul lømb, sem ern án lyta, hvern dag tvø, til eins daglegs brenneoffurs,
4. Eitt lamb ad morgne, og þad annad á móte kvollde,
5. Þar til tíunda part af Epha hveitemiøls, til eins matoffurs, meingad med oleo þad sem steked er, eins fiorda part af hin.
6. Þad er daglegt brenneoffur,

Þad sem Þer færdud á Sinai fialle, til eins sæts ilms, einn elldur fyrer Drottni.

7. Þar til drickoffrid, iá, til eins lambs, fiorda part af hin, Madur skal offra drickoffursins víne í helgedomenum, fyrer Drottni.

8. Þad annad lambed skalltu tilgera í mót aftne, líka sem matoffur um morgunenn, og so sem drickiar-offred, til offurs sætleiks ilms fyrer Drottni.

9. Enn á sabbaths-deige tvo lømb árs gømul án lyta, og tvo tíundu parta hveitemiøls, blandada med oleo til eins matoffurs, og sitt drickiaroffur.

10. Þad er serhvers sabbathsdags brenneoffur, fyrer utan Þad daglega brenne-offur, med sínu drickiaroffre

11. Enn Þann fyrsta dag í ydrum mánudum, skulud Þer fornsæra Drottni eitt brenneoffur, tvo unga uxa, einn hrút, siø lømb ársgømul án lyta.

12. Og so Þriá tíundu parta hveitemiøls, til matoffurs, blandada med oleo, til hvers uxa, og tvo tíundu parta hveitemiøls til matoffurs, meingada med oleo, til hvers eins hrúts,

13. Og so einn tíunda part hveitemiøls til matoffurs, blandadan med oleo, til hvers lambs, Þad er brenneoffur sætleiks ilms fyrer Drottni.

14. Og Þeirra drickiaroffur skal vera, ein half hin víns, til uxans, og enn Þridie partur af hin, til hrútsins, og enn fiorde partur hins, til lambsins. Þad er brenneoffred á serhverum manude um áred.

15. Her ad auk skal Madur tilgera Drottni einn kiarnhafur til syndaoffurs, auk Þess daglega brenneoffurs, med sínu drickaroffre.

16. Enn á Þeim fiortanda deige hins fyrsta mánadar eru páskar Drottins.

17. Og á fimmtanda deige, á Þeim sama mánade er hátíd, Menn skulu eta ósyrt braud í siø daga.

18. Sá fyrste dagur skal kallast heilagur, ad Þer skulud koma til samans: Þer skulud ecke erfidis verk fremia á Þessum døgum.

19. Og Þer skulud offra Drottni brenneoffre, tvo unga uxa, einn hrút, siø lømb árs gømul lytalaus.

20. Med Þeirra matoffre, Þremur tíundu pørtum hveitemiøls, bløndudum med oleo, til serhvers uxa, og tvo tíundu parta, til hrútsins,

21. Og so einn tíunda part, til hvers lambs af siø.

22. So og einn geithafur til syndaoffurs, til forlíkunar fyrer ydur,

23. Þetta skulud Þer gerá á morgna, ad auk Þess brenneoffurs, sem er eitt daglegt brenneoffur.

24. Epter Þessum hætte skulud Þer hvern dag, Þá siø daga í samt, offra braude, til eins offurs sæts ilms fyrer Drottni, fyrer utan Þad daglega brenneoffur, og drickiaroffur.

25. Og sá siøunde dagur skal kallast heilagur hiá ydur, ad Þer komed til samans. Þer skulud enga erfidis vinnu vinna á Þeim deige.

26. Og sá dagur fyrsta ávaxtar, Þá Þer offred Drottni Þad nya matoffur, Þá ydrar vikur eru úte; hann skal kallast heilagur, so Þer skulud koma til samans; Þer skulud enga erfidis vinnu fremia á hønum.

27. Og Þer skulud fornfæra Drottni brenneoffur til eins sæts ilms, tvø ungneyte, einn hrút, siø lømb ársgømul,

28. Med Þeirra matoffre, Þremur tíunduÞørtum hveitemiøls, meingudum med oleo, til hvers nauts, tveimur tíunduÞørtum til hrútsins.

29. Og so einum tíunda parte til hvers lambs, af þeim sio lømbum,
30. Og einn geithafur, til einnrar forlíkunar fyrer ydur.
31. Þetta skulud þer gera auk þess daglega brenneoffurs, med sínu matoffre, þetta skal vera án lyta, þar med þeirra drickiaroffur.

## 29. Capitule.

1. Og sá fyrste dagur í þeim siøunda mánade skal kallast heilagur hiá ydur, so þer skulud koma til samans: engann erfidis gerning skulud þer gera á hønum, þad er ydra ludra dagur.
2. Og þer skulud færa brennefórner Drottni til eins sæts ilms, einn ungann uxa, einn hrút, siø ársgømul lømb, án lyta.
3. Þar til þeirra matoffur, þriá tíundu parta hveitemiøls, meingada med oleo, til uxans, tvo tíundu parta til hrútsins,
4. Og einn tíunda part til hvers lambs af þeim siø lømbum,
5. Og einn geithafur til syndaoffurs, til einnrar forlíkunar fyrer ydur,
6. Fyrer utan þess mánadar brenneoffur og matoffur, og fyrer utan þad daglega brenneoffur med sínu matoffre, og med þeirra drickiaroffre, epter þeirra skickun, til eins sæts ilms, þad er Drottni eitt offur.
7. Sá tíunde dagur í þeim siøunda mánade skal og helgur kallast hiá ydur, ad þer skulud koma til samans, og þer skulud þiá ydra líkame, og eckert erfide þá fremia,
8. Enn þer skulud offra Drottni brennefórn til eins sæts ilms, eitt ungt naut, einn hrút, siø lømb árs gømul án lyta.
9. Med þeirra matoffre, þriá tíundu parta hveitemiøls, meingada med oleo, til nautsins, tvo tíundu parta til hrútsins,
10. Og so einn tíunda part, til hvers af þeim siø lømbum.
11. Þar til einn geithafur, til syndaoffurs, fyrer utan forlíkunar syndaoffur, og þad daglega brenneoffur, med sínu matoffre, og med þeirra drickiaroffre.
12. Sá fimmtande dagur í þeim siøunda mánade skal kallast helgur hiá ydur, ad þer skulud koma til samans. Þer skulud ecke þrælkunar erfide fremia á þeim degi, og þer skulud hallda hátíd Drottni í siø daga.
13. Og þer skulud offra Drottni brenneoffre til sætlegs offurs fyrer Drottni, þrettan unga uxa, tvo hrúta, fiortan lømb árs gømul án lyta,
14. Med þeirra matoffre, þremur tíundu pørtum hveitemiøls, meingudum med olee, til hvers uxa af þeim þrettan, og tvo tíundu parta, til hvers hrúts af þeim tveimur.
15. Og einn tíunda part, til hvers lambs af þeim fiortan.
16. Þar til einn geithafur, til syndaoffurs, ad auk þess daglega brenneoffurs, med sínu matoffre, og med þeirra drickiaroffre.
17. Annann dagenn tolf unga uxa, tvo hrúta, fiortan lømb árs gømul án lyta,
18. Med þeirra matoffre og drickiaroffre til uxanna, til hrútanna, og til lambanna, í þeirra tølu, epter þvi sem vísa er.
19. Þar til einn geithafur, til syndaoffurs, ad auk þess daglega brenneoffurs, med sínu matoffre, og med þeirra drickiaroffre.
20. A þeim þridia deige ellefu uxa, tvo hrúta, fiortan lømb ársgømul, fyrer utann lyte,
21. Med þeirra matoffre, og drickiar-offre, til uxanna, til hrútanna,

og til lambanna, í sinne tølu, epter þvi sem vísa er.

22 Þar til einn hafur til syndaoffurs, ad auk þess daglega brenneoffurs, med sínu matoffre og drickiaroffre.

23. A fiorda deige, tíu uxa, tvo hrúta, fiortan lømb árs gomul án lyta,

24. Med þeirra matoffre og drickiaroffre, til uxanna, og hrútanna, og til lambanna, í þeirra tølu, epter vísunne.

25. Þar til einn geithafur, til syndaoffurs, fyrer utan þad daglega brenneoffur, med sínu matoffre og drickiaroffre.

26. A fimmta deige, níu uxa, tvo hrúta, fiortan lømb árs gomul án lyta,

27. Med þeirra matoffre og drickiaroffre, til uxanna, til hrútanna, og til lambanna, í þeirra tølu, epter sidveniunne.

28. Þar til einn geithafur til syndaoffurs, fyrer utan þad daglega brenneoffur, med sínu matoffre og drickiaroffre.

29. A siøtta deige, átta uxa, tvo hrúta, fiortan lømb árs gomul án lyta,

30. Med þeirra matoffre og drickiaroffre, til uxanna, hrútanna, og til lambanna, í þeirra tølu, epter sidveniu,

31. Þar til einn hafur til syndaoffurs, ad auk þeirrar daglegrar brennefórnar, med sínu matoffre, og sínu drickiaroffre.

32. A siøunda deige, siø uxa, tvo hrúta, fiortan árs gømul lømb án lyta,

33. Med þeirra matoffre og drickiaroffre, til uxanna, hrútanna, og til lambanna, í þeirra tølu, epter sidveniu.

34. Þar til einn geithafur, til syndaoffurs, fyrer utann þá daglegu brennefórn, med sínu matoffre, og drickiaroffre.

35. Hinn áttunde skal vera samkundudagur. Þer skulud enga þrælkunar vinnu á bønum fremia.

36. Og þer skulud offra brennefórner til eins sætlucktande-offurs fyrer Drottni, einn uxa, einn hrút, siø lømb árs gømul án lyta,

37. Med þeirra drickiaroffre, til uxanna, hrútanna, og til lambanna, í þeirra tølu, epter sidveniunne.

38. Þar til einn geithafur til syndaoffurs fyrer utan þá daglegu brennefórn, med sínu matoffre og drickiaroffre.

39. Slíkt skulud þer gera Drottni á ydrum hátídum, fyrer utan þad þer hafed lofad, og af friálsum vilia gefed, til brenneoffurs, matoffurs, drickiaroffurs og þackaroffurs.

1. Og Moses sagde Israels børnum allt þetta, sem Drottinn hafde boded hønum.

## 30. Capitule.

2. Og Moses talade vid høfdingia yfer ættkvíslum Israelis barna; og sagde. Þetta er þad sem Drottinn hefir boded.

3. Ef nockur madur gerer eitt heit fyrer Drottni, eda sver einn eid, ad hann heitbindir sína sálu, hann skal eigi bregda sín ord, helldur gera allt so sem þad framm geck af hans munne.

4. Þegar ein kvenumans persona gerer Drottni nockud heit, og hún skuldbindur sig, á medan hún er í síns føđurs húse, í sínum ungdome,

5. Og hennar heit og lofan, sem hún gerer yfer sinne sálu, kemur fyrer hennar fødur, og hann þeiger þar vid, þá gillder øll hennar lofan, og

so øll hennar forplicktun, sem hún hefir gert yfer sinne sálu.

6. Enn ef hennar fader fyrerbydur henne þad, á þeim deige sem hann þad heyrer, þá gillder hverke heited ne sú forplicktunenn, med hverre hún hefir heit-bunded sig yfer sinne sálu, og Drottinn mun vera henne nádugur, fyrst ad hennar fader stod þar í móte,

7. Enn á hún Mann, og hún hefir nockud heit á ser, eda falle af hennar vørum nockur heitlofun yfer hennar salu,

8. Og hennar madur heyrde þad, og þeiger um þad á þeim sama deige, gillder hennar lofan og heitstreinging, sem hún hefir plicktad sig yfer sinne sálu.

9. Enn stande hennar madur þar ímót, þann sama dag sem hann heyrer þad, þá er hennar heit laust, sem hún hefir á ser, og sú forplicktun sem framm er geingenn af hennar vørum yfer hennar sálu, og Drottinn mun vera henne nádugur

10. Enn hveru ein eckia heiter, eda sú frá Manne er skilenn, og forplicktar sína sálu med, þad skal hún hallda.

11. Enn ef hún het, eda forplicktade sig yfer sinne sálu, med einum eide, þá hún var í síns Manns huse,

12. Og husbondenn heyrer þad, og þeiger yfer þvi, og stendur þar eigi ímót, þá skal þad allt heit halldast, og þad allt sem hún hefir forplicktad sig yfer sinne sálu.

13. Enn tale husbondenn þá ímót, á sama deige, sem hann þad heyrer, þá duger þad eigi sem framm er geinged af hennar vørum, sem þvi lofade, edur heitbatt sig yfer sína sál, þvi húsbondenn hefir rofed þad, og Drottinn skal vera þeim nádugur.

14. Og øll heit og alla eida, sem geraſt líkamanum til þiáningar, má húsbondenn stadfesta, edur riúfa, í soddann máta,

15. Nær hann þeiger þar vid, frá einum deige til annars, þá stadfester hann øll þau heit og forplicktaner sem Madur hefir á ser, þar fyrer, ad hann þagde á þeim deige þá hann þad heyrde.

16. Enn riúfe hann þad þar epter, sem hann hefir þad heyrt, þá skal hann bera misgerningenn.

17. Þetta eru þær skickaner, sem Drottinn baud Mose, millum Manns og kvinnu, millum føðurs og dotters, á medan hún er enn jungfrú, í síns føðurs húse.

## 31. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Hefn þú Israels barna á Madianitum, so þú meiger þar epter safnast til þíns folks.

3. Þá talade Moses vid folked og sagde: búed folk til bardaga á medal ydar, ímóte Madianitum, so þer meiget hefna Drottins á Madianitum.

4. Eitt þusund af serhverre ættkvísl, so ad þer útsended í þennann bardaga af øllum Israels kinkvíslum.

5. Og þeir útvøldu af þusundum Israels eitt þusund af hverum kinþætte, tolf þusunder manna vopnada.

6. Og Moses útsende þá í bardaga, med Pinehas, syne Eleasar prests, og þau heiløgu klædenn, og þá hvellande lúdra í hans hende.

7. Og þeir færdu þennann Her á móte Madianitum, so sem Drottinn hafde boded Mose. Og þeir slóu íhel allt karlkins,

8. So og slóu þeir þá Madianita konga íhel, med þeirra íhelslegnu,

sem voru, Evi, Rekem, Sur, Hur, og Reba, þessa fimm Madianita konga, þeir slóu og Balaam son Beors íhel med sverde.

9. Og Israels børn tóku Madianita kvinnur, og þeirra børn, ad herfánge, og þeir ræntu øllum þeirra fenade, og øllum þeirra búhlutum, og øllu þeirra gotse.

10. Og þeir uppbrenndu med ellde alla þeirra stade, sem þeir bíuggu í, og øll þeirra slot.

11. Og þeir tóku allt herfánged, og allt þad til var ad taka, bæde Menn og fe,

12. Og færdu þad til Mosen, og til prestsins Eleasar, og til almúgans Israelis barna, sem er, þá herteknu, þann tekna fenad, og þad ræntu góts í herbúdunum, á Moabitanna vøllum, sem liggia hiá Jordan, gegnt Jericho.

13. Og Moses og presturenn Eleasar, og aller høfdingiar almúgans, geingu út í móte þeim, út fyrer herbúdernar.

14. Og Moses vard reidur hershøfdingiunum þess sama hers, bæde þeim sem setter voru yfer þúsund, og hundrad, og komner voru frá þessum hernade og bardaga,

15. Og sagde til þeirra: þvi gáfud þer líf øllum kvinnunum?

16. Siá, hafa eigi þessar enu sømu fráshúed Israelis børnum, epter Balaams ráde, ad þeir syndgudust imóte Drottni, yfer Peor, og þar kom ein plága yfer almúgann Drottins.

17. So sláed nú allt karlkins íhel á medal þeirra barna, og allar þær konur sem samræde hafa átt vid karlmenn.

18. Enn láted øll børn, sem kvennkins eru, lífa fyrer ydur, og allar ospilltar meyar, sem eigi hafa leiged hiá karlmønnum.

19. Og legred ydur utann herbúda í sio daga, aller þeir sem Mann hafa íhel sleiged, eda komed hafa vid nockud lík, ad þer látid ydur hreinsa, á þeim þridia og siøunda deige, med þeim sem þer hafed herteked,

20. Og allann klædnad, øll verkfære af skinne, og alli þad sem gert er af geita skinnum, og alls háttud treker skulud þer hreinsa.

21. Og presturenn Eleasar sagde til strids-folksins, sem í bardaganum hafde vered: þetta er løgmáled sem Drottinn hefir bifalad Mose,

22. Gull, silfur, kopar, járn, tin og bly, og allt þad sem þoler elld, skulud þer láta ganga í gegnum elld, og hreinsa þad, so ad þad se hreinsad med ádreifingar vatne.

23. Enn allt þad sem eigi þoler elld, þad skulud þer láta ganga í gegnum vatn,

24. Og þer skulud þvo ydar klæde á þeim siøunda degi, so erud þer hreiner, og epter þad skulud þer koma í herbúdernar.

25. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

26. Reikna summu á herfánge þeirra herteknu, bæde af mønnum og fenade, þu og presturenn Eleasar, og þeir yppurstu fedur fyrer almúgonum,

27. Og gef þeim helftena þaraf sem fóru í strided og børdust, og annann helming almúganum,

28. Og þu skallt upplykta fyrer Drottni af strids-mønnum, sem voru útfarner í strided, i.á einnre sál af fimm hundrudum, bæde af mønnum og nautum, øsnum og saudum,

29. Af þeirra helminge skalltu þad taka, og afhenda prestenum Eleasar þad, Drottni til einnrar upplyptingar.

30. Enn af þeim helminge sem

Israels børnum til kemur, skalltu taka þann fimmtugasta part, bæde af mønnum og nautum, af øsnum og sauðum, og af ollu kvikfe, og afhenda þad Levitunum, þeim sem vardveita tialldbúd Drottins.

31. Moses og presturenn Eleasar gerdu sem Drottinn hafde boded Mose.

32. Og herfánged sem epter var, sem þad strídsfolked hafde feinged til bitis, var sex hundrud þusund, og siøtíu, og fimm þusund sauda,

33. Og siøtíu og tvø þusund uxa.

34. Eitt og sextíu þusund asna.

35. Og þær kvenpersonur sem eigi høfdu Mann kennt, og eigi leiged hiá mønnum, tolf og tuttugu þusund sáler.

36. Enn helftenn sem þeim tilheyrde, er í strídenu høfdu vered, var þriu hundrud þusunder, og fimmhundrud sauda,

37. Þar af fleck Drottinn sex hundrud, fimm og siøtíu sauda,

38. Item, sextan og tuttugu þusund uxa, þar af feck Drottinn tvo og siøtíu.

39. Item, þriátíu þusund, og fimmhundrud asna, þar af feck Drottinn sextíu og einn.

40. Item, manneskna sáler, sextan þusunder, þar af feck Drottinn tolf og tuttugu.

41. Og Moses afhendte prestenum Eleasar þetta Drottins upplyptingaroffur,

42. Sem Drottinn hafde bifalad hønum.

43. Enn sá annar helmingur, sem Moses skipte á millum Israelis barna, frá strídsfolkenu, sem var sá helmingur sem almúganum fell til, voru þriuhundrud þusunda, seytian og tuttugu þusunder, og fimm hundrud sauder,

44. Sextan og tuttugu þusunder uxa,

45. Þriátíu þusunder, og fimmhundrud asna,

46. Og manneskiur sextan þusunder.

47. Og Moses tók af þeirre helft Israelis, eitt af hverum fimmtíu, bæde af mønnum og fenade, og feck þad Levitunum, sem tóku vara uppá tialldbúd Drottinns, sem Drottinn hafde bifalad Mose.

48. Og hershøfdingiarner yfer þusund, og yfer hundrad, geingu framm fyrer Mosen, og søgdu til hans,

49. Þíner þenarar hafa teked manntal alls þessa stríds-folks, sem var under vorum høndum, og þar vantade eigi einn.

50. Þar fyrer skeinkum ver Drottni af því sem hver af oss hefir funded, af gullgersemum, kedium, armspaungum, hringum, eyrnahringum, og smídum, til forlíkunar fyrer vorar sáler, fyrer Drottni.

51. Og Moses og presturenn Eleasar medtóku af þeim þad sama gull, í allsháttudum gersemum.

52. Og allt gull til upplyptingaroffurs, sem þeir upplyptu fyrer Drottni, var sextan þusund, og siø hundrud, og fimmtíu siklar, af hershøfdingiunum yfer þusundum, og hundrødum.

53. Því strídsfolked hafde rænt hver fyrer sig.

54. Og Moses og presturenn Eleasar medtóku þetta gull, af høfudsmønnum yfer þusundum og hundrødum, og báru þad í samkundutialldbúdena, Israels børnum, til minningar, fyrer Drottni.

## 32. Capitule.

1. Børn Rubens, og børn Gads høfdu miøg mikla mergd kvikfiár,

og sáu ad landed Jaeser og Gilead
var haglegt fyrer kvikke,
2. Og þeir komu og søgdu til
Mosen og prestsins Eleasar, og til
høfudsmanna almúgans,
3. Þad land Athroth, Dibon,
Jaeser, Nimra, Hesbon, Eleale,
Seban, Nebo og Beon,
4. Sem Drottinn hefir slegid
fyrer Israels almúga, er hagkvæmt
fyrer kvikke, og ver þýner þenarar
høfum kvikke,
5. Og þeir søgdu enn framar: ef
ver høfum funded nád fyrer þer,
þá gef þínum þenurum þad land
til eignar, so vilium ver eigi fara
yfer Jordan.
6. Moses sagde til þeirra, skulu
þá ydar brædur draga í stríd, og
þer viled blífa her?
7. Þvi snued þer hiørtum Israels
barna, so þeir drage eigi her
yfer um, í þad land, sem Drottinn
mun gefa þeim?
8. So gerdu og ydar fedur, þá
eg útsende þá af KadesBarnea, ad
skoda landed.
9. Og sem þeir komu upp ad lækn-
um Eskol, og sáu landed, þá frafnæ-
ru þeir hiørtum Israels barna, so
þeir villdu eigi fara í landed, þad
sem Drottinn villde gefa þeim.
10. Og Drottins reide gramdest
á þeim tíma, og hann sór, og sagde:
11. Þesse lydur, sem út er farenn
af Egyptalande, tvítuger Menn,
og þadan af elldre, skulu eigi siá
þad land sem eg hefe svared Abra-
ham, Isaac og Jacob, søkum þess,
ad þeir hafa eigi trulega epterfylgt
mer,
12. Ad fráteknum Caleb, syne
Jephunne, Kenesita, og Josua, sy-
ne Nuns, þvi þeir hafa trulega epter
fylgt Drottni.
13. Þá gramdest Guds reide Is-
rael, so hann let þá fara aptur og
framm um eydemørku í fiørutíu
ár, so leinge sem þad kin foreyddest,
sem illa gerde fyrer Drottni.
14. Og siáed, þer erud upp
geingner í ydra fedra stad, so ad
þeir syndugu verde þess fleyre, og
þer gered enn nú reide og grimmd
Drottins stærre í gegn Israel,
15. Þvi ef þer snued ydur frá
hønum, þá mun hann enn leingur
láta þá vanka í eydemørkenne, og
med þessu fordiarfed þer allt þetta
folk.
16. Þá geingu þeir nær, og søg-
du, ver vilium eigi byggia her ne-
ma fe-hús handa voru kvikke, og
borger fyrer vor børn.
17. Enn ver vilium vopnast fremst
í fylkingum fyrer Israels børnum,
þar til ver færum þá til þeirra sta-
da. Vor børn skulu vera í þeim
sterku borgum, søkum innbyggiara
landsins.
18. Eigi vilium ver fara heim
aptur, fyrr enn Israels børn hafa
inntekid serhver sinn arf.
19. Þvi ver vilium eigi taka arf
med þeim hinumeigenn Jordanar,
helldur skal vor arfur fallenn vera
þessumeigenn Jordanar, í mót au-
stre.
20. Moses sagde til þeirra: ef þer
viled þetta gera, ad þer viled her-
klæda ydur til stríds, fyrer Drott-
ni,
21. Þá fared yfer Jordan, fyrer
Drottni, hver ydar sem herklædd-
ur er, á medal ydar, þar til ad hann
rekur sína óvine frá sinne augsion,
22. Og landed er orded under-
gefed fyrer Drottni: epter þad skul-
ud þer snua aptur, og vera kvitter
fyrer Drottni, og fyrer Israel, og
so skulud þer hafa þetta land til
eignar, fyrer Drottni.
23. Enn viled þer eigi so gera,
siá, þá syndgest þer í móte Drottni,

og þer skulud verda varer vid ydar
synd, þá hún sinnur ydur.
24. So bygged nú borger fyrer
ydar børn, og fiár=hús fyrer ydart
kvikfe, og gered sem þer hafed sagt.
25. Enn børn Gads og børn Rubens
sogdu til Mosen: Þíner þenarar
skulu gera sem minn Herra hefir
bisalad.
26. Vor børn, kvinnur, búshluter,
og allt vort kvikfe skal vera í
stodum Gilead,
27. Enn ver, Þíner þenarar, vilum
aller tyader til bardaga fara í
stríd, fyrer Drottni, sem minn Herra
hefir sagt.
28. So baud Mose þeirra vegna
prestenum Eleasar, og Josua, syne
Nuns, og þeim yppurstum fedrum
Israelis barna ættar,
29. Og sagde til þeirra: þá børn
Gads og børn Ruben ferdast med
ydur yfer Jordan, aller herklædder
til stríds fyrer Drottni, og landed
er ydur undergefed orded, þá gefed
þeim þad land Gilead til eignar.
30. Enn fare þeir eigi herklædder
med ydur, þá skulu þeir taka arf
med ydur í Canaans lande.
31. Børn Gads og børn Rubens
svørudu og sogdu: so sem Drottinn
hefir talad til þinna þenara, so vilum
ver gera,
32. Ver vilum fara herklædder
fyrer Drottni í þad land Canaan,
og eignast vort erfda gots, þessumeigenn
Jordanar.
33. So gaf Moses børnum Gads,
og børnum Rubens, og hálfre ætt
Manasse, sonar Josephs, ríke Sihons,
kongs Amorita, og ríke Ogs,
kongs af Basan, landed med stodun
um, med ollum landsálfum, allt
umhverfis.
34. So byggdu syner Gads Dibon,
Atharoth, Aroer,
35. Atroth, Sophan, Jaeser,
Jegabeha,
36. Bethnimra, og Betharan
sterkar borger, og saudahús.
37. Enn børn Rubens byggdu
Hesbon, Eleale, Kiriathaim,
38. Nebo, Baal, Meon, og umskiptu
nøfnunum, og Sibama, og
þeir gáfu þeim stodum nøfn sem
þeir byggdu.
39. Og børn Machir, sonar Manasse,
geingu inn í Gilead, og unnu
hana, og útdrifu þá Amoreos sem
þarinne voru,
40. Þá gaf Moses Machir, syne
Manasses, Gilead, og hann bío þar.
41. Enn Jair, sonur Manasses, geck
burt og vann þeirra smáu borger,
og kallade þær Havoth Jair,
42. Nobah geck burt og vann
Knath, og hennar dætur, og kallade
hana Nobah, epter sínu nafne.

## 33. Capitule.

1. Þetta eru þær ferder sem Israelis
børn høfdu, þeir sem útforu
af Egyptalande, epter þeirra Her,
fyrer Mosen og Aaron.
2. Og Moses skrifade upp þeirra
ferd, hvernenn þeir ferdudust, epter
bifalningu Drottins, og þetta eru
þær ferder sem þeir reistu.
3. Þeir ferdudust út frá Raemses,
þann fimmtanda dag í þeim
fyrsta mánade, annann dag páska,
fyrer eina uppretta hønd, ad ásiaondum
ollum Egyptskum.
4. Og þá jordudu þeir Egyptsku
sína frumgetnu, sem Drottinn
hafde deydt á medal þeirra, því
Drottinn hafde hád dóm á þeirra
afgudum.
5. Og þá þeir ferdudust frá Raemses,
settu þeir sínar herbúder í
Suchoth.
6. Og þeir ferdudust út frá Suchoth,
og settu sínar herbúder í E=

tham, sem liggur ytst í eydemørkenne.

7. Þeir fóru út frá Etham, og voru í þeim dalnum Hahiroth, sem liggur gegnt Baalzephon, og settu herbúder gegnt Migdol.

8. Þeir fóru frá Hahiroth, og gengu midt í gegnum hafed, burt í eydemørkena, og ferdudust þriggia daga reisu í eydemørkena Etham, og settu herbúder í Marah.

9. Þeir fóru frá Marah, og komu til Elim, þar voru tolf vatsbrunnar, og siøtíu palmvidar tre, og þar settu þeir herbúder.

10. Þeir fóru frá Elim, og reistu herbúder hiá því Rauda hafe.

11. Og þeir fóru frá Hafenu Rauda, og settu herbúder í eydemørku Zin.

12. Þá fóru þeir frá eidemørku Zin, og settu herbúder í Daphka.

13. Þeir fóru út frá Daphka, og settu herbúder í Alus.

14. Þeir fóru út frá Alus, og settu herbúder í Raphidim, þar hafde folked ecke vatn ad drecka.

15. Þeir fóru af Raphidim, og settu sínar herbúder í eydemørku Sinai.

16. Þeir ferdudust frá Sinai, og settu sínar herbúder í Gyrndargrøfum.

17. Og þeir ferdudust burt frá Gyrndargrøfunum, og settu sínar herbúder í Hazeroth.

18. Þeir fóru út frá Hazeroth, og settu sínar herbúder í Rithma.

19. Þeir ferdudust frá Rithma, og settu sínar herbúder í Rimon Parez.

20. Þeir fóru frá Rimon Parez. Og settu sínar herbúder í Libna.

21. Þeir fóru frá Libna, og settu sínar herbúder í Rissa.

22. Þeir ferdudust frá Rissa, og settu sínar herbúder í Kehelatha.

23. Þeir ferdudust frá Kehelatha, og settu sínar herbúder á fiallenu Sapher.

24. Þeir ferdudust frá fiallenu Sapher, og settu sínar herbúder í Harada.

25. Þeir fóru frá Harada, og settu sínar herbúder í Makeheloth.

26. Þeir ferdudust frá Makeheloth, og legrudu sig í Thahath.

27. Þeir fóru frá Thahath, og settu sínar herbúder í Tharah.

28. Þeir fóru frá Tharah, og settu sínar herbúder í Mithka.

29. Þeir fóru frá Mithka, og settu sínar herbúder í Hasmona.

30. Þeir fóru frá Hasmona, og settu sínar herbúder í Moseroth.

31. Þeir fóru frá Moseroth, og settu sínar herbúder í Bne Jaekon.

32. Þeir fóru frá Bne Jaekon, og settu sínar herbúder í Horgidgad.

33. Þeir fóru frá Horgidgad, og settu sínar herbúder í Jathbatah.

34. Þeir fóru frá Jathbatah, og settu sínar herbúder í Abrona.

35. Þeir fóru frá Abrona, og settu sínar herbúder í Ezeongaber.

36. Þeir fóru frá Ezeongaber, og settu sínar herbúder í eydemørku Zin, það er Kades.

37. Þeir fóru frá Kades, og settu sínar herbúder hiá fiallenu Hor, hiá Edoms landamerkium.

38. Þar geck presturenn Aaron uppá fialled Hor, epter bífalingu Drottins, og andadest þar, á því fertugasta áre epter það sem Israels børn voru farenn af Egyptalande, þann fyrsta dag í þeim fimta mánade.

39. Þá hann var hundrad tutugu og þriggia ára gamall.

40. Og Arad, Cananita kongur, sem bio í sunnanverdu lande-

nuCanaan, spurde adIsraels børn voru komenn.

41. Og þeir ferduduſt frá fiallenu Hor, og settu sínar herbúder í Zalmona.

42. Og þeir ferduduſt frá Zalmona, og settu sínar herbúder í Phunon.

43. Þeir fóru frá Phunon, og settu sínar herbúder í Oboth.

44. Þeir fóru frá Oboth, og settu sínar herbúder í Igim, hiá fiallenu Abarim, í landamerkium þeirra Moabitarum.

45. Þeir fóru frá Igim, og settu sínar herbúder í Dibongad,

46. Þeir fóru frá Dibongad, og settu sínar herbúder í Almon Diblathaim.

47. Þeir fóru frá Almon Diblathaim, og settu sínar herbúder í Abarims fialle gegnt Nebo.

48. Þeir fóru frá Abarim fialle, og settu sínar herbúder á vøllum þeirra Moabita, vid Jordan, gagnvart Jericho.

49. Enn þeir settu sínar herbúder frá Beth Jesimoth á breidlendenu Sittim, á vøllum þeirra Moabita,

50. Og Drottinn talade vid Mosen á Moabitanna vøllum, hiá Jordan gegnt Jericho, og sagde:

51. Tala þú vid Israels børn, og seig til þeirra, þá þer erud komner yfer Jordan, inn í það land Canaan,

52. Þá skulud þer burtdrífa alla innbyggiara frá ydru auglite, og eydeleggia alla þeirra stolpa, og øll þeirra steypt bílæte, og ad engu gera allar þeirra hæder,

53. So ad þer eigneſt landed, og búed þar í. Því eg hefe gefed ydur landed, ad þer eigneſt það.

54. Og þer skulud skipta landenu med hlutfalle í millum ydra kinkvísla; þeir sem eru marger, þeim skulud þer skipta þess meira; og þeir sem eru fáer, þeim skulud þer þess minna skipta. So sem hlutfalled fellur hverium til, so skal hann hafa, epter þeirra fedra ættkvíslum.

55. Enn se það so, ad þer burtdrífed eigi landsins innbyggiara frá ydri áſionu, þá skulu þeir sem þer láted epter blífa, verda ydur þyrner í augum, og til brodda í ydrum sídum, og þeir skulu þreingia ad ydur í því lande sem þer búed í.

56. Þá mun það ske, ad hvad eg hugde ad gera þeim, það skal eg gera ydar.

## 34. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

2. Bíod þú Israels børnum, og seig til þeirra: Þá þer komed í Canaans land, þá skal það land sem ydur hlotnaſt til arfs í Canaans lande hafa sín landamerke.

3. Það sydra landshorned skal taka frá eydemørkenne Zin, hiá Edom, so ad ydar landamerke í sudur se frá enda þess sallta hafs, sem liggur í auſtur.

4. Og það landamerke sem liggur frá sudre, upp imót Akrabbim, og gengur í gegnum Zinna, og tekur í frá sudre, allt til Kades barnea, og nær allt til þess þorps Adar, og geingur í gegnum Asmon.

5. Og tekur allt frá Asmon til Egyptalækiar, og endenn þar á se vid sióenn.

6. Enn landamerkenn í veſtur frá skulu vera það Mikla haf, það skal vera ydar landamerke veſtur frá.

7. Enn landamerke nordur frá, skulu þesse vera: þer skulud mæla frá því stóra hafe til fiallsins Hor.

8. Og frá fiallenu Hor skulud

þer mæla, þar til madur kemur til Hamath, og þad skal ganga út allt til landamerkia Z[?]ada,

9. Og endenn á þeim sömu lan damerkium til Siphron, og skal endast hiá þvi Þorpe Enan, þetta skulu vera ydar landamerke í nordur-átt.

10. Og þer skulud mæla ydar landamerke austur frá þvi Þorpe Enan til Sepham,

11. Og landamerked skal ganga nidur frá Sepham til Ribla austanverdt vid Ain, þar epter skal þad ganga ofann epter, og beya sig til siáfarsídunnar Cinereth til austurs,

12. Og koma nidur til Jordanar, so skal þad endast vid þad sallta hafed, þetta skal vera ydart land allt umkring, med sínum landamerkium.

13. Og Moses baud Jsraels börnum, og sagde: þetta er þad land sem þer skulud skipta á millum ydar epter hlutfalle, hvert Drottinn bífalade ad gefa þeim níu kinkvíslum, og þeim hálfa kinþætte.

14. Þvi ættkvísl barna Rubens, epter þeirra fedra húse, og Gads barna ættkvísl, epter þeirra fedra húse, og Manasses hálf ættkvísl, hefir teked sinn hluta.

15. So hafa þær tvær ætter, og sú halfa ætt þeirra arfskipte í burt, á þessa sídu Jordanar, í austre, gegnt Jericho.

16. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

17. Þessi eru nöfn þeirra Manna sem skipta skulu landenu med ydur, presturenn Eleasar, og Josua, sonur Nuns.

18. Þar til skulud þer taka hvern ættarhöfdingiann, til ad skipta landenu.

19. Og þetta eru nöfn þeirra Manna, Caleb, sonur Jephunne, af Juda kine,

20. Semuel, sonur Amihud, af Simeons kine,

21. Elidad, sonur Chislom, af Benjamins kine,

22. Buki, sonur Jagli, höfdinge yfer kine Barna Dans.

23. Haniel, sonur Ephod, höfdinge fyrer kine Barna Manasses, af börnum Josephs,

24. Kemuel, son Siphtan, höfdingenn yfer Kine Ephraims barna.

25. Elizaphan, sonur Parnachs, höfdingenn yfer kine Sebulons barna.

26. Paltiel, sonur Asans, höfdingenn yfer kinþætti Jsaschars barna,

27. Ammihud, sonur Selomi, höfdingenn yfer kinþætti Assers barna.

28. Pedahel, sonur Ammihuds, höfdingenn yfer kinþætti Nephthali barna.

29. Þesser eru þeir sem Drottinn baud ad skipta örfunum med Jsraels börnum, í Canaans lande.

## 35. Capitule.

1. Og Drottinn talade vid Mosen, á Moabitis völlum, hiá Jordan, gagnvart Jericho, og sagde:

2. Bíod þú Jsraelis börnum, ad þeir gefe Levitunum borger af þeirra arfa gotse, til ad búa í, þar til skulud þer og gefa Levitunum understade allt umkring borgernar,

3. So þeir siálfer meige búa í borgunum, enn hafa þeirra kvikfe, gots, og allrahanda dyr í underst ödunum.

4. Enn þeir sömu understader, sem þeir skulu gefa Levitunum, skulu vera þusund alna ut frá stads múrnum allt umhverfis.

5. So skulud þer nu mæla utann fyrer stadnum, fra þvi austur hor-

ne, tvø þusund alna, og frá þvi syðra hornenu, tvø þusund alna, og frá hornenu í vestur, tvø þusund alna, og frá þvi hornenu vid nordur sídu, tvø þusund alna, so ad borgenn sialf se rett í midiu, þad skulu vera þeirra under-stader.

6. Og medal þeirra borganna sem þer gefed Levitunum, skulud þer gefa sex frelsis stade, ad þangad meige flya sá sem manne hefir ad skada orded. Ad auk þessa þá skulud þer enn gefa tvo og fiørutíu stade,

7. Ad aller stader þeir þer gefed Levitunum, verde átta og fiørutíu, med þeirra forstødum.

8. Og þer skulud gefa þeim af Israelis barna eign, meira frá þeim sem meira hafa, enn minna frá þeim sem minna hafa: serhvert skal gefa Levitunum stade epter sinne erfd, sem hønum skiptest.

9. Og Drottinn talade vid Mosen, og sagde:

10. Tala þú vid Israels børn, og seig til þeirra: nær þer komed yfer Jordan í Canaans land,

11. Þá skulud þer útvelia stade, sem vera skulu frelsis-stader, til hverra þeir meige flya, sem óvart slá nockurn íhel.

12. Og þer skulud hafa þessa frelsis-stade fyrer blódhegnaranna saker, so ad þeir skulu eigi deyda hann sem nockud manndráp hefir gert, fyrr enn hann hefir staded rett fyrer almúganum.

13. Og þeir stader sem þer skulud gefa, skulu vera sex frelsis stader.

14. Þriá skulud þer gefa þessumeigenn Jordanar, og þriá í Canaans lande.

15. Þesser eru þeir sex frelsis stader, bæde fyrer Israels børn og framande, og so fyrer innbyggiarana millum ydar, ad sá flye þangad, sem slær nockurn til dauds óforvarandis.

16. Hver sem slær nockurn med járne, so hann deyi, hann er einn manndrápare, og skal sannlega deya.

17. Enn sláe hann med einum steine (sem nockur meige sláſt íhel med) og hann deyr þar af, þá er hann einn manndrápare, og skal sannlega deya.

18. Enn sláe hann med nockurs háttar tre (þvi sem nockur má sláſt íhel med) so ad hann deyr, þá er hann einn manndrápare, og skal sannlega deya.

19. Blódhegnarenn skal láta deyda þann manndráparaz líka sem hann hefir sleiged, so skal hann aptur deydaſt.

20. Hrinde hann hønum af hatre, eda kastar nockru á hann svikſamlega, so hann deyr,

21. Edur slær hann til dauds af heipt med sinne hende, so hann deyr, þá skal sá sem hann sló, vissulega deya, þvi hann er einn manndrápare. Blóds hegnarenn skal láta drepa hann.

22. Enn ef nockur hrinder hønum óforvarandis, fyrer utann óvináttu, eda kastar nockru óvarlega á hann,

23. Eda kastar einum steine á hann (sem hønum má til bana verda, og sá þad eigi) so ad hann deyr, og hann er eigi hans óvinur, og eigi villde hann hønum vondt,

24. Þá skal almúgenn dæma í millum þess er sló, og blódhegnarans í þessum dóme.

25. Og almúgenn skal frelsa manndráparann af blódhegnarans hende, og skal láta hann koma aptur til þess frelsis stadar, sem hann flyde til, og hann skal vera þar, þar til sá ypparste prestur deyr,

sá sem smurdur er med þvi heilaga oleo.

26. Enn gange manndrápareнn út af landamerkium þess frelsis stadar, sem hann flyde til,

27. Og blódhegnarenn finnur hann fyrer utann þess frelsis stadar landsmark, og slær hann íhel, þá skal hann eigi vera sakadur í hans blóde.

28. Þvi hann átte ad blífa í sínum frelsis stad, til þess yppársta prests dauda, og epter þess yppársta prests dauda skyllde hann koma til síns lands aptur, þar hann hafde sitt erfda gots.

29. Þetta skal vera ydur einn rettur hiá ydar epterkomendum, hvar hellst þer búed.

30. Einn mandrápara skal slá íhel, epter munne tveggia votta: eitt vitne skal eigi svara ímót nockrum til dauda.

31. Og þer skulud enga forlíkun taka af nockorum manndrápara, þvi hann hefir forþenad ad deya, og hann skal vissulega deya,

32. Og þer skulud enga forlíkun taka fyrer þann sem flyr í frelsisstadinn, ad hann skule koma aptur, og búa í landenu, fyrr enn prestur enn deyr.

33. Og saurged eigi landed þad þer búed í, þvi hver sem blóds sekur er, hann saurgar landed, og landed má eigi forlíkast fyrer þad blód sem út er hellt, nema med þess blóde sem þvi úthellte.

34. Saurged eigi landed, þad þer búed í, í hveru eg og by, þvi eg em Drottinn, sá sem byr á millum Israelis barna.

## 36. Capitule.

1. Og þeir yppurstu fedur af ættkvísl sona Gilead, sonar Machir, sem var sonur Manasses, af ætt Josephs barna, geingu framm, og töludu til Mosen, og so til höfudsmannanna, og til yppurstu fedra Israelis barna,

2. Og sögdu: kiære Herra! Drottinn hefir boded, ad Menn skulo gefa Israelis börnum landed til arfskiptis med hlutfalle, og þer, minn Herra, er þad bífalad fyrer Drottinn, ad ver skylldum gefa vors brodurs Zelaphehads dætrum hans erfdahlut.

3. Nú ef nockur af Israels ættum tekur þær til eigennkvenna, þá verdur vor fodur arfur minne, og so miked sem þær hafa, fellur þad til arfs í þá ættkvísl sem þær koma til, og verdur þá vor erfda hlutur þess minne.

4. Og þá þad fagnadar ár kemur nú fyrer Israels börnum, þá kemur og þeirra erfda hlutur burt, til þeirrar ættkvíslar sem þær eru. Og med þessu verdur vor födur arfur þess nuin minne, sem þær hafa miked.

5. Og Moses baud Israels börnum, epter bífalningu Drottins, og sagde: þad er rett sem ætt barna Josephs hefir sagt.

6. Þetta bydur Drottinn um Zelaphehads dætur, og seiger: þær meiga gipta sig hverum þær vilia, þo so, ad þær gipte sig í sinnar födur ættar frændskap,

7. So ad erfd Israelis barna falle eigi frá einure ættkvísl til annarar, þviad hver og einn af Israels börnum skal blífa vid arf sinnar födurættar.

8. Og allar dætur, sem hafa erfda part á medal Israels barna ættar, þær skulu giptast í sinna fedra ættar frændskap, so hver einn og einn á medal Israelis barna meige hallda síns födurs arfe,

9. So ad eigi falle nockur erfd úr-

ættis, í adra ættkvísl, helldur ad hver meige hallda sinne erfd, á millum Israelis barna ættar.

10. Zelaphehads dætur, Mahela, Thirza, Hagla, Milcha, og Noa, gerdu sem Drottinn hafde boded Mose,

11. Og giptust sínum frændum,

12. I Manasses barna ætt, sonar Josephs, so var þeirra arfleifd í ætt þeirra fødur frænda.

13. Þesse eru þau bodord, og skickaner, sem Drottinn baud Israelis børnum, fyrer Mosen, á vøllum Moabitanna, hiá Jordan, gagnvart Jericho.

Ender þeirrar fiordu bokar Moses.

# Hin Fimta Bok Moses.

## 1. Capitule.

1. Þesse eru þau ord, sem Moses talade til alls Israels, hinumeigenn Jordanar, í eydemørkenne, á þvi slettlende, út imót þvi rauda hafenu, á mille Paran og Thophel, Laban, Hazeroth og Disahab.

2. Ellefu dagferder frá Horeb, í gegnum þann veigenn fiallsins Seir, allt til Kades barnea.

3. Og þetta skede á fertugasta áre, á fyrsta deige þess ellefta mánadar, þá talade Moses vid Israels børn, allt þad sem Drottinn hafde boded hønum.

4. Epter þad sem þeir høfdu ihel sleiged Sihon, Amoritanna kong, sem bió í Hesbon, þar med og kongenn í Basan, sem bió í Astaroth, og í Edrei,

5. Hinumeigenn Jordanar í Moabitanna lande, tók Moses til ad útleggia þetta løgmál, og sagde:

6. Drottinn Gud vor talade vid oss á fiallenu Horeb, og sagde: Þer hafed nú nogu leinge vered á þessu fialle,

7. Snúed ydur, og fared hedann, so ad þer komed til Amoritanna fialls, og til allra þeirra sem þeim eru nálæger, á slettlendenu, á fiøllunum, og í dølunum imóte sudrenu, og imót høfnum siáfarins, landsins Canaan, og til fiallsins Libanon, allt til hins mikla vatnsins Phrath.

8. Siáed, eg hefe gefed ydur þad land sem fyrer ydur liggur; fared þangad og eignest þad, hvert ed Drottinn hefir svared fedrum ydrum, Abraham, Isaac, og Jacob, ad hann villde gefa þeim þad, og þeirra sæde epter þá.

9. Þá sagde eg í þann sama tíma til ydar: eg kann eigi einnsaman ad bera ydur,

10. Þviad Drottinn ydar Gud hefir margfalldad ydur, so ad þer erud í dag so marger sem stiørnur á himne,

11. (Drottinn Gud fedra ydra gere ydur enn mørgum þusundum fleyre, og blesse ydur, so sem hann hefir sagt ydur.)

12. Hvernenn kann eg einnsaman ad bera þvilika armædu, þunga og þrætur af ydur?

13. Utveled vísa og skinsama Menn, þá sem valennkunner eru, á medal ydar kinkvísla, þá hinu somu vil eg setia yfer ydur til høfdingia.

14. Þá svørudud þer mer, og søgdud: Þad er einn gódur hlutur, sem þú seiger þad þú viler gera.

15. Þá tók eg hina eldstu Menn ydvara kinkvísla, vísa Menn og skinsama, og sette þá til høfdingia

yfer ydur, yfer þusund, yfer hundrad, yfer fimmtíu, og yfer tíu, og embættis Menn medal ydar kinkvísla.

16. Og eg baud ydrum domurum þann sama tíma, og sagde: heyred ydra brædur, og dæmed rett á millum hvers Manns, og hans brodurs, og hins framanda.

17. Hafed ecke manngreinar álit í dome, helldur skulud þer heyra hinum minnsta, sem hinum hæsta, og eigi skelfast fyrer nockurs Manns persónu, þviad domara embættid er Guds. Enn ef nockur málefne eru ydur ofþung, þá láted þau koma fyrer mig, so ad eg yfer-heyre þau.

18. So baud eg ydur á þeim tíma allt hvad þer skylldud gera.

19. So fórum ver frá Horeb, og reistum í gegnum alla eydemørkena (sú bæde er mikel og hrædeleg, sem þer hafed sed) á þann veigenn sem liggur til fiallsins þeirra Amorita, so sem þad Drottinn Gud vor hafde boded oss, og komum til Kades barnea.

20. Þá sagde eg til ydar: þer erud komner til fiallsins þeirra Amorita, hvert ed Drottinn Gud vor vill gefa oss,

21. Siá þú þar þad landed fyrer þer, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer; far þú upp og eignast þad, so sem þad Drottinn Gud fedra þinna hefir sagt þer: óttast eigi og hræðst eigi neitt.

22. Þá komud þer aller til mín, og søgdud: látum oss senda nockra Menn þangad undann oss, sem fare ad skoda landed, og seige oss aptur, um hvern veg ad ver skulum þangad fara, og þá stadena sem ver eigum til ad koma.

23. Þad líkade mer vel, og eg tók tolf Menn af ydur, einn af hverre kinkvísl.

24. Þá þeir sømu gengu í burt, og fóru um fiallbygdernar, og komu til lækiarins Escol, þá skodudu þeir þad.

25. Og þeir tóku af ávøxtum landsins med ser, og høfdu þá ófann hingad til vor, og gáfu oss þad svar aptur, og søgdu: þad land er godt sem Drottinn Gud vor hefir gefed oss.

26. Enn þer villdud eigi fara þangad, og þer vorud óhlydner munne Drottins Guds ydars,

27. Og møgludud í landtiølldum ydrum, og søgdud: Drottinn hann hatar oss, þar fyrer hefir hann útleidt oss af Egyptalande, ad hann villde gefa oss í hendur Amoritanna, ad þeir í eydelegdu oss.

28. Hvert skulum ver fara? brædur vorer hafa skelft vor hiørtu, og sagt: þad folk er stærra og hærra enn ver; borger eru þar stórar og rammbygdar allt til himens; þar med høfum ver sed í þeim sama stad børn Enakims.

29. Þá sagde eg til ydar: láted eigi skelfa ydur, og hræðest þá eigi.

30. Drottinn Gud ydar hann seiger ydur leid þangad, og hann mun beriast fyrer ydur, so sem hann gerde vid ydur í Egyptalande, fyrer ydrum augum.

31. Og á eydemørkenne, þar þú sed hefir hvernenn þad Drottinn Gud þinn hefir bored þig, líka sem einn madur ber sinn son, í gegnum allann þann veigenn sem þer hafed umfared, þangad til þer erud komner til þessa stadar.

32. Enn þad feckst med engo móte af ydur, ad þer villdud trua á Drottinn Gud ydarn,

33. Hver ed geck fyrer ydur, til ad vísa ydur þá stadena, hvar ad þer skulud legra ydur, á nottenne, í elldenum, so ad hann vísade ydur

þann veigenn, sem þer skylldud ganga, og um dagenn í skyenu.

34. Enn sem ad Drottinn heyrde ydra kveinau, vard hann reidur, sór og sagde:

35. Þar skal eingenn af þessare vondre kinslod siá þad góda landed, sem eg hefe svared ad gefa fedrum þeirra.

36. Utann Caleb, sonur Jephunne, hann skal siá þad, og honum vil eg gefa þad landed, og hans børnum, sem hann hefir yfer fared, af þvi, ad hann hefir trulegana eptersylgt Drottne.

37. Og Drottenn vard einenn reidur vid mig, ydra vegna, og sagde: þú skallt og einenn eigi helldur koma þangad.

38. Enn Josua, sonur Nuns, sem er þinn þenare, hann skal koma þar inn, stirk þú hann, þviad hann skal útskipta arfstøkunne á medal Israel.

39. Og ydar børn, af hverum þer søgdud: þeir munu verda eitt herfang, og ydrer syner, sem í dag hafa hverke skin á godu ne illu, þeir skulu koma þar inn, þeim enum sømu vil eg gefa þad, og þeir skulu eignast þad.

40. Enn þer snúed ydur aptur, og ferdist til eydemerkur, á þann veigenn til Rauda hafsins.

41. Þá svørudud þer, og søgdud til mín: ver høfum syndgast á móte Drottini; ver vilum fara upp og beriast, so sem þad Drottinn Gud vor hefir boded oss. Þá þer herklæddud ydur nú, hver einn sínum herklædum, og vorud á þvi ad ferdast uppá fiallid,

42. Þá sagde Drottinn til mín, seia þú þeim: ad þeir fare eigi upp, og berest eigi helldur, þviad eg em eigi á medal ydar, so ad þer verded eigi slegner af ydrum óvinnum.

43. Þá eg sagde ydur þetta, villdud þer eigi hlyda mer, og þer vorud óhlyduger munne Drottins, og metnødust, og fórud uppá fialled.

44. Þá fóru þeir Amoritar út á móte ydur, sem biuggu á fiøllunum, og elltu ydur, so sem ad býflugurnar gera, og slógu ydur í Seir, allt til Harma.

45. Þá þer komud nú aptur, og gretud fyrer Drottni, þá villde Drottinn eigi heyra ydra raust, og hneigde eigi sín eyru til ydar.

46. So vorud þer úti í Kades í langa tíma, so leinge sem þer vorud þar.

## 2. Capitule.

1. Þá snerum ver oss, og fórum til eydemerkurennar, á þann veigenn út til Rauda hafsins, so sem þad Drottinn sagde til mín, og ver fórum í kringum fialled Seir í langa tíma,

2. Og Drottinn sagde til mín,

3. Þer hafed nog fared í kringum þetta fiall, snued ydur imót nordrenu.

4. Og bíod þú fólkenu, og seig: þer skulud ganga í gegnum lands álfur brædra ydarra, barna Esau, sem búa í Seir, og þeir munu otta slegner vera fyrer ydur.

5. Enn taked ydur vel í vakt, ad þer stríded eigi imót þeim, þviad eg vil eigi gefa ydur eitt fet af þeirra lande, þviad fialled Seir hefi eg gefed børnum Esau til eignar.

6. Þer skulud kaupa mat af þeim fyrer peninga ad eta, og þer skulud kaupa vatned af þeim fyrer peninga til ad drecka.

7. Þviad Drottinn Gud þinn hefir blessad þig í øllum þínum handa verkum, hann hefir hugsæd vered þín reisa, í gegnum þessa hina miklu eydemørku, og þad eru nú fiøru tíu ár, ad Drottinn Gud þinn hefir

hiá þer vered, so ad þig brast eigi neitt.

8. Þá ver vorum nú farner framm hiá brædrum vorum, børnum Esau, sem bigg gu á fiallbygdum Seir, á þeim veigenum þess slettlendesins frá Elath og Ezeongaber, þá sner= um ver oss og gengum á þann veigenn til Moabita eydemerkur.

9. Þá sagde Drottinn til mín: Þú skallt ei gera þeim Moabitis neitt skadræde, og strída eigi imót þeim, þvi eg vil ecke gefa þer af þeir= ra lande til eignar, af þvi, ad eg hefe gefed Ar børnum Loths til eignar.

10. Þeir Emim hafa í fordum tídum búed þar inne, þad var eitt stórt, sterkt, og hárt folk, so sem þeir Enakim,

11. Menn helldu þá og fyrer risa, líka sem Enakim, og Moabitar kølludu þá og Emim,

12. Og Horitar bigg gu og einn= enn fordum daga í Seir, børn Esau drifu þau í burt, og foreyddu þeim fyrer ser, og bigg gu í þeirra stød= um, líka sem Israel gerde vid þad land, sem þeir eignudust, hvert ed Drottinn gaf þeim.

13. So taked ydur nú upp, og fared yfer um lækenn Sared, og ver fórum þar yfer um.

14. Enn sá tímenn, þá ver fór= um frá Kades Barnea, allt þangad til er ver komum yfer um lækenn Sared, voru Atian og tuttugu ár, so þad aller strídsmennerner dæu í herbúdunum, so sem þad Drottinn hafde svared þeim.

15. Þar med var og hønd Drott= ins á móte þeim, til ad foreyda þeim úr herbúdunum, þar til þeir eydd= ust aller.

16. Og þá strídsmennerner voru aller fallner, so ad þeir deydu nidur á medal folksins,

17. Þá talade Drottinn til mín, og sagde:

18. Þú munt fara í dag í gegn= um landamerke þeirra Moabita, í hiá Ar,

19. Og þú munt koma alla leid framm gegnt børnum Ammons. Engann skada skalltu þeim gera, og eigi helldur beriast vid þá, þviad eg vil engann hlut af lande Am= mons barna gefa þer til eignar, þvi eg hefe gefed børnum Loths þad til eignar.

20. Þad er og hallded fyrer eitt risa land: þar hafa og einnenn fords= um daga risar inne búed, og þeir Ammonitar kølludu þá Sammesu= mim.

21. Þad var eitt stórt, sterkt, og hátt folk, so sem Enakim. Og Drott= inn afmáde þá fyrer þeim, og let þá eignast þad, só ad þeir bigg gu þar inne í þeirra stad,

22. Líka sem þad hann hafde gert vid børn Esau, sem bigg gu á fialle= nu Seir, þá hann í eyde lagde Ho= ritana fyrer þeim, og let þá eignast þad, so ad þeir bigg gu þar í þeirra stad allt til þessa dags.

23. Og þeir Caphthorim ferdud= ust út frá Caphthor, og í eydeløgdu þá Avim, sem bigg gu í Hazerim, allt til Gaza, og bigg gu so þar í þeirra stødum.

24. Taked ydur upp, hafed ydur af stad, og fared yfer um lækenn hiá Arnon: siá þú, eg hefe gefed Sihon, kongenn þeirra Amorita af Hesbon, í þínar hendur, med hans lande. Tak nú til under þig ad leggia og heig bardaga vid hann,

25. Í dag vil eg upp hefia, ad allar þióder, under øllum himnen= um, skulu hrædast og skelfast fyrer þer, ad nær þeir heyra þíns geted, þá skulu þær fá hrædslu og kvída fyrer þinne komu.

26. Þá sende eg bod úr austann-verdre eydemørkinne til Sihons, kongsins af Hesbon, med fridsamlegum ordum, og let seigia hønum:

27. Eg vil fara í gegnum þitt land, og þar sem vegurenn er, þar vil eg ganga, og víkia hverke til hægre handar ne vinstre út af veigenum.

28. Mat skalltu selia mer fyrer peninga til ad eta, og vatn skalltu gefa mer ad drecka fyrer peninga, eg vil eigi utann ganga þar á fæte í gegnum,

29. Líka sem børn Esau, þeir ed búa í Seir, hafa gert vid mig, og Moabitarner sem búa í Ar, þangad til ad eg kemst yfer um Jordan, í þad land sem Drottinn Gud vor mun gefa oss.

30. Enn Sihon, kongurenn af Hesbon, villde eigi leyfa oss ad ferdast þar í gegnum, þviad Drottinn Gud þinn forherdte hans sinne, og forblindade hans hiarta, uppá þad hann villde gefa hann í þínar hendur, so sem ad nú má siá á þessum deige.

31. Og Drottinn sagde til mín: siá þú! eg hefe byriad ad gefa upp fyrer þer Sihon og hans land; tak þu til ad eignast og under þig leggia hans land.

32. Og Sihon fór út ímot oss med allt sitt folk, til ad strída í Jahza.

33. Enn Drottinn Gud vor gaf hann under oss, so ad ver slóum hann og hans børn, og allt hans folk.

34. Þá unnum ver þann sama tíma alla hans stade, og forbønnudum øllum stødum, bæde Mønnum, konum og børnum, og letum ecke epter lifa,

35. Utann fenadenn, hverum ver rænktum til vor, og herfánged úr stødunum, sem ver høfdum unned,

36. Í frá Aroer, sem liggur vid Backann hiá læknum Arnon, og í frá þeim stadnum vid vatned, inn til Gilead; þar var eingenn sá stadur, sem kunne ad veria sig fyrer oss. Drottinn Gud vor gaf þá alla under oss.

37. Utann þad eina, ad þú máter eigi koma í land þeirra Ammons barna, og til engra þeirra, sem liggia vid lækenn Jabok, eigi helldur til stadanna á fiallbygdunum, ne til nockra þeirra, sem Drottinn Gud hafde fyrerboded oss.

## 3. Capitule.

1. Og ver snerum oss, og fórum upp þadann, þann veg sem liggur til Basan. Þá fór Og kongurenn af Basan út ímote oss, med allt sitt folk, til bardaga hiá Edrei.

2. Enn Drottinn sagde til mín: ver þú óhræddur fyrer þeim, þviad eg hefe gefed hann, allt hans folk, med hans lande, í þínar hendur, og þú skallt gera vid hann, líka sem þú gerder vid Sihon Amorita kong, sem bío í Hesbon.

3. So gaf Drottinn Gud vor einnen kongenn Og af Basan í vorar hendur, med øllu hans folke, so ad ver slóum hann, þangad til ad þar vár eingenn epter.

4. Þá yferunnum ver þann sama tíma allar hans borger, og þar var eingenn sá stadur ad ver tókum eigi frá hønum, sextíu borger, allt þad heradid Argob, í Ogs kongsríke, af Basan.

5. Aller þesser stader voru rammbygder med háum múrveggium, borgarhlidum, og slagbrøndum, fyrer utann ønnur miøg mørg þorp, sem eigi voru múrvegger umkring.

6. Og ver bannsettum þá, líka sem ver gerdum vid Sihon kongenn af Hesbon. Alla stadena bannfærdum ver, bæde Menn, konur og børn.

7. Enn allt kvikfed og herfánged sem var í stødunum, ræntum ver til vor.

8. So tókum ver í þann tíma landed, af hende þeirra tveggia Amorita konga, hinum meigenn Jordanar, allt í frá þeim læknum hiá Arnon, inn til fiallsins Hermon,

9. Hvert ed Sidonitar kalla Sirion, enn þeir Amoritar kalla þad Senir.

10 Alla stadena á slettlendenu, og gervallt Gilead, og allt Basan, inn til Salcha og Edrei, þá stadena í Ogs kongs ríke af Basan.

11. Þviad kongurenn Og af Basan var enn nú alleina epter blífsenn af risunum: siá þú, hans járnsæng er her í Rabbath, hiá børnum Ammons, níu alna laung, og fiøgra alna breid, epter karlmans alboga.

12. Og ver løgdum þad land under oss þann samá tíma, í frá Aroer, sem liggur hiá Arnons læk. Og eg gaf þeim Rubenitum og Gaditum þad hálfa fialled Gilead, med sínum stødum.

13. Og þvi hálfu Manassis slekte gaf eg þá adra helftena af Gilead, og allt kongsríked Ogs af Basan, og gervallt heraded Argob, og allt Basan, þad kallast Risa land.

14. Jair sonur Manassis nam allt heraded Argob, til Gessuri, og Maachati landamerkia, og hann kallade Basan epter sínu nafne Havoth Jair, allt til þessa dags.

15. Enn Machir gaf eg Gilead.

16. Og þeim Rubenitum og Gaditum gaf eg einn vartenn af sama lande Gilead, inn til Arnons lækar, midt í lækenn, sem landamerked er, og allt inn til þess lækarinns Jabok, sem er landamerke barna Ammons.

17. Þar med slettu vaullunag og Jordan (sem er landamerked) frá Chinereth, inn til siáfarens hiá slettlendenu, sem er, sá sallte siórenn, nedanverdt hiá þvi fiallenu Pisga, móte austrenu.

18. Eg baud ydur þá sømo tíd, og sagde: Drottinn Gud ydar hefir gefid ydur þetta land til eignar, af þvi dragid nú herklædder framme fyrer ydrum brædrum Israels børnum, so marger sem færer eru í stríd ad fara,

19. Fyrer utann ydar húsfreyur, børn og fenad (þviad eg veit, ad þer hafed mikinn fenad) þad láted blífa í ydrum stødum, þeim sem eg hefe gefed ydur.

20. Þangad til ad Drottinn hann kemur ydrum brædrum til hvíldar, so sem ydur, so ad þeir meige og eignast þad land sem Drottinn Gud ydar mun gefa þeim hinumeiginn Jordanar, þá skulud þer snúa aptur, hver til sinnar eignar, sem eg hefe gefed ydur.

21. Og eg baud Josua þá sømo tíd, og sagde: Þín augu hafa sed allt hvad Drottinn ydar Gud hefir gert þessum tveimur konnungum, so mun og Drottinn gera vid øll þau kongaríke, sem þú ferdast til.

22. Vered eigi hrædder fyrer þeim, þviad Drottinn Gud ydar stríder fyrer ydur.

23. Og eg bad Drottinn þann sama tíma, og sagde:

24. Drottinn! Drottinn! Þú hefir upp byriad ad syna þínum þenara þína dyrd, og þína øfluga hønd, þvi hver er sá nockur Gud á himne og jørdu, sem kunne ad gera epter þínum verkum og magt?

25. Lát þú mig fara, og siá þad góda landed hinumeigenn Jordanar, þad góda fialled og Libanon.

26. Enn Drottinn vard reidur vid mig fyrer ydra skulld, og bænheyrde mig eigi, helldur sagde hann til mín: lát þad so nægia; seig þú mer þar eigi meira út af.

27. Stíg þú upp á efstu hæd fiallsins Pisga, og upplypt þinum augum mót vestrenu, mót nordrenu, og mót sudrenu, og mót austrenu, og siá þad med augunum, þvi þú munt eigi ganga yfer þessa á, Jordan.

28. Og skipa þú Josua, ad hann se hraustur, og óefadur, þviad hann skal ganga fyrer þessu fólke yferum Jordan, og skal útskipta med þeim þvi landenu, sem þú munt siá.

29. Og so vorum ver í þeim dalnum gegnt húsenu Peor.

## 4 Capitule.

1. Og heyr þú nú Israel þau bodord og þann rett sem eg kenne ydur, ad þer gered þau, so þer meiged lifa, og koma þar inn, og eignast þad landed sem Drottinn Gud fedra ydra gefir ydur.

2. Þer skulud engo auka vid þad sem eg byd ydur, og eigi neitt taka þar frá, uppá þad ad þer meiged vardveita bodordenn Drottins Guds ydars, þau sem eg byd ydur.

3. Ydar augu hafa sed hvad Drottinn hefir gert á mót BaalPeor, þvi Drottinn Gud þinn hefir foreidt øllum þeim á medal ydar sem epterfylgduBaalPeor.

4. Enn þer, sem hafed hallded ydur vid Drottinn ydarn Gud, lifed enn nú aller samann á þennann dag.

5. Siáed, eg hefe kennt ydur bodord og rettinde, so sem þad Drottinn Gud minn hefir boded mer, ad þer skylldud gera lika so í landenu, þar inn þer munud koma, til ad eignast þad.

6. So hallded þad nú, og gered, þad, þvi þad mun vera ydar vitska og skilningur hiá øllu folke, nær ed þeir heyra øll þesse bodord, ad þeir munu seigia: hei! hversu vís og skinsamur lydur er þad, og eitt vegsamlegt folk.

7. Þvi hvar er so dyrdlegt folk, hveru Guderner hafa so nálæger verid, so sem Drottinn Gud vor, so opt sem ver ákøllum hann?

8. Og hvar er eitt so mikels háttar folk, þad er hafe so rettferduga skickun og bod, sem allt þetta løgmáled er, þad sem eg legg í dag framm fyrer ydur.

9. Tak þer nú vara, og vardveit þína sálu vel, so ad þú forgleymer eigi þeim gerningum sem þín augu hafa sed, og þad þeir kome þer eigi úr hiarta, um alla lífdaga þína. Og þú skallt kunngera þá þínum børnum og barna børnum,

10. Já, þann dag sem þú stodst fyrer Drottni þínum Gude, í hiá fiallenu Horeb, þá er Drottinn sagde til mín: samansafna þú folkenu fyrer mig, so eg láte þá heyra mín ord, og þeir lære ad óttast mig um alla þá daga sem þeir lifa á jørdunne, og ad þeir kenne þad børnum sínum

11. Og þer geingud þar framm, og stodud hiá nedanverdu fiallenu, og fialled þad logade allt, midt upp í himenenn, og þar var myrkur, ský og dimma.

12. Og Drottinn talade vid ydur, midt ur elldenum, raustena hans orda heyrdud þer, enn enga mind sáud þer þar, utann raustena.

13. Og hann kunngerde ydur þá sinn sáttmála, hvern ed hann baud ydur ad gera, sem vorn þau tíu bodordenn, og hann skrifade þau uppá tvø steinspiølld.

14. Og Drottinn baud mer þann sama tíma, ad eg skyllde læra ydur vísuna og rettinn, so ad þer skylldud gera þar epter, í þvi landenu sem þer ferdudust til ad eignast.

15. So vardveited nú ydar sáler vel, þviad þer hafed enga mind sed á þeim deige, þá Drottinn talade vid ydur ur elldenum, upp á fiallenu Horeb.

16. So ad þer skulud eigi fordiarfa ydur, og gera ydur nockora líkneskiu, sem álík være nockorum Manne, edur kvinnu,

17. Edur kvikkenade á jørdu, edur fuglum under himnenum,

18. Ellegar ormum á jørdunne, edur fiskunum í vatnenu under jørdunne.

19. Og ad þú eigi upplypter þínum augum imót himnenum, og álíter eigi sólena, og tungled, og stiørnurnar, þann allann Her himensins, ad þú faller frá mer og tilbider þau, og þiguer þeim, hverGud þinn hefir gefed øllu folke under øllum himnenum.

20. Enn ydur hefirDrottinn medteked til sín, og útleidt ydur af þeim járnofnenum, þad er úr Egyptalande, so ad þer skylldud vera hans erfda folk, so sem þad er nú í dag.

21. Og Drottinn vard reidur vid mig, fyrer ydars gernings saker, so hann sór, þad eigi skyllda eg ganga yfer um Jordan, og eigi helldur koma í þad Góda landed sem Drottinn þinn Gud mun gefa þer til arftøku,

22. Helldur hlyt eg ad deya í þessu lande, og ganga eigi yfer um Jordan, enn þer munud ganga þar yfer um, og eignast þad góda landed.

23. So vared ydur nú vid þvi, ad þer forgleymed eigi sáttmálanum DrottinsGuds ydars, þeim sem hann hefir gert vid ydur, og gered eigi líkneskiu epter nockore mind, so sem þad Drottinn Gud þinn hefir boded.

24. Þviad Drottinn Gud þinn er einn foreydande elldur, og einn vandlátur Gud.

25. Nær þer aled nú børn og barna børn, og bued í landenu, og þer fordiarfed ydur, og gered ydur líkneskiur epter einhverre mind, so ad þer gered illa fyrer Drottni Gude ydrum, og reited hann til reide.

26. Þá kalla eg í dag himen og jørd til vitnisburdar yfer ydur, ad þer munud snarlega foreydast úr þvi landenu sem þer fared nú til, yfer um Jordan, ad eignast; þer munud eigi leinge bua þarinne, helldur munud þer verda í eyde lagder.

27. Og Drottinn mun í sundurdreifa ydur á medal þiodanna, so ad þer skulud verda einn lítels háttar flockur á medal heidingianna, til hverra ad Drottinn mun útreka ydur.

28. Þar muntu þiona þeim skúrgodum sem eru gerd med Manna høndum, tre og steinum, sem hverke kunna ad siá ne heyra, eta ne luckta.

29. Enn nær ed þú leitar þar DrottinsGuds þíns, þá skalltu finna hann, ef þú leitar hans af øllu þínu hiarta, og allre þinne sálu.

30. Nær ed þú sær angist, so ad aller þesser hluter koma yfer þig á þeim sídurstu døgum, þú skalltu snúa þer aptur til Drottins Guds þíns, og hlyda hans raust.

31. Þviad Drottinn Gud þinn er einn miskunsamur Gud, hann mun eigi yfergefa ne fordiarfa þig, hann mun og eigi forgleyma þeim sáttmála, sem hann sór fedrum þínum.

32. Spyrst þú furer um þá umlidnu tíma, um þá sem vered hafa

fyrer þig, ífrá þeim deige ed Gud skapade Mannenn á jördinä, ífrá einum enda til annars, under himnenum, hvert ad þar hefir nockurn tíma sked so mikell hlutur, edur hafe slíkt fyrre heyrst,

33. Ad nockurt folk hafe heyrt Guds rødd tala af elldenum, so sem ad þú hefir heyrt, og lifer þo samt?

34. Eda hvert Gud hefir til reynt nockurn tíma, ad ganga inn og taka ser eitt folk, midt á medal lydsins, fyrer freistaner, fyrer tákn og dásemdar gerninga, fyrer stríd og fyrer volldugа hønd, og fyrer einn útrettann armlegg, og fyrer so ofurliga gerninga, so sem Drottinn Gud ydar hefir gert þad alltsamann ydar vegna í Egyptalande fyrer þínum augum?

35. Þetta hefir þú sed, so ad þú viter, ad Drottinn er alleina Gud, og eingenn annar.

36. Hann hefir láted þig heyra sína raust af himne, ad hann villde kenna og þer undervísa. Og hann hefir láted þig siá sinn hinn mikla elld á jørdu, og þú hefir heyrt hans ord úr elldenum,

37. Af þvi ad hann elskade þína fedur, og utvalde þeirra sæde epter þá. Og hann utleidde þig af Egyptalande med sinne augsyn, og fyrer sinn stóra krapt.

38. Ad hann villde útdrífa fyrer þer stort fólk, og sterkara enn þu ert, og innleida þig, ad gefa þer þeirra land til arfløku, so sem ad nu til geingur, á þessum deige.

39. So skallt þú nú í dag þad vita, og leggia þer á hiarta, ad Drottinn er einn Gud bæde á himnum uppe, og á jørdu nidre, og eingenn annar.

40. Ad þú hallder hans skickaner og bodord, sem eg byd þer í dag, so skal þad ganga þer vel, og þínum børnum epter þig, so ad þú meiger leinge lifa í þvi landenu, sem Drottinn Gud þinn gefur þer æfinnlega.

41. Þá fráskilde Moses þriá stade, hinumeigenn Jordanar, ímót austrenu,

42. Ad sá sem óvart slær sinn náunga íhel, skyllde flya þangad, ef hann var eigi óvinur hans ádur fyrre, þá mátte hann flya til einhvers þessara stada, og hallda so sínu lífe,

43. Sem ad var Bezer í eydemørkunne, á slettlendenu, á medal þeirra Rubenita, og Ramoth í Gilead, sem liggur í ættlid Gad, og Golan í Basan, í Manasses ætt jørd.

44. Þetta er løgmáled, sem Moses frammsette fyrer Israels børn,

45. Þad er sá vitnisburdurinn, skickunenn, og retturenn, sem Moses sagde til Israels barna, þá þeir voru útfarner af Egyptalande,

46. Hinumeigenn Jordanar í dalnum, gagnvart húse Peors, í lande Sihons, kongsins þeirra Amorita, sem sat í Hesbon, hvern ed Moses og Israelis børn slóu, þá er þeir voru komnir af Egyptalande,

47. Og eignudust so hans land. Og so líka þad landid kongsins Ogs af Basan, þeirra tveggia konga Amorita, sem voru hinumeigenn Jordanar, ímót austrenu,

48. Ifrá Aroer, sem liggur vid lækiarbackann Arnon, allt inn til fiallsins Sion, þad er Hermon.

49. Og allt þad slettlended hinu meigenn Jordanar til austurs, og inn til siafarins, á þvi slettlendenu, fyrer nedann hiá fiallenu Pisga.

## 5. Capitule.

1. Og Moses kallade allann Israel, og sagde til þeirra: heyr þú Israel þau bodord, og rettinn, sem

eg tala í dag fyrer ydrum eyrum, læred þau og hallded þau, ſo ad þer gered þar epter.

2. Drottinn Gud vor gerde einn ſáttmála vid oſs í Horeb.

3. Og hann hafde eigi gert þennann ſáttmála vid vora forfedur, helldur vid oſs, ſem her erum aller lifande til á þeſſum deige.

4. Hann talade vid oſs frá auglite til auglitis, úr elldenum, uppá fiallenu.

5. Eg ſtód þann ſama tíma á millum Drottins og ydar, ad eg ſkylldi kunngera ydur ord Drottins, þviad þer vorud hrædder fyrer elldenum, og geingud eigi uppá fialled, og hann ſagde:

6. Eg em Drottinn Gud þinn, ſem útleidde þig af Egyptalande, af þrældoms húſenu,

7. Þú ſkallt eigi hafa adra Gude fyrer mer.

8. Þú ſkallt engva líkneſkiu gera þer epter neinne mind, hverke á himnum uppe, ne á jørdu nidre, eigi helldur í vatnenu under jørdunne,

9. Þú ſkallt eigi tilbidia þau, og eigi þiona þeim. Þviad eg em Drottinn Gud þinn, einn vandlátur Gud, vitiande illſku fedranna á børnunum, í þann þridia og fiórda ættlid, þeirra ſem mig hata,

10. Og eg audſyne miſkun vid margar þuſunder þeim ſem mig elſka, og mín bodord hallda.

11. Þú ſkallt eigi vanbrúka nafn Drottins Guds þíns, þviad Drottenn mun þann ei óhegndann láta ſem hans nafn vanbrúkar.

12. Þú ſkallt hallda ſabbathsdaginn, ſo þú helger hann, ſo ſem þad Drottinn Gud þinn hefir boded þer,

13. Sex daga ſkalltu erſída, og gera allann þinn verknad.

14. Enn ſá ſiøunde dagurenn er Drottins Guds þíns ſabbath: þú ſkallt þá eigi neitt erfide fremia, eigi helldur ſonur þinn, eigi helldur dotter þín, eigi helldur þinn þionuſtumadur, og eigi þín þionuſtu kvinna, eigi þinn uxe, og eigi þinn aſne, og eigi helldur nockur af þínum gripum, og eigi helldur hinn framande, ſem ad er innann þinna portdyra, ſo ad þinn þionuſtu madur, og þín ambátt, meige hvíla ſig, líka ſem þú.

15. Þviad þer ſkal til hugar koma, ad þú hefir og vered einn þræll í Egyptalande, og Drottinn Gud þinn leidde þig út þadann med volldugre hendi, og útrettum armlegg. Þar fyrer hefir Drottinn Gud þinn boded þer, ad þú ſkyllder hallda ſabbathsdaginn.

16. Þú ſkallt heidra fødur þinn og modur þína, ſo ſem Drottinn Gud þinn hefir boded þer, ſo ad þú kunner leinge ad lifa, og ad þad meige þer vel ganga í landenu, þvi ſem Drottinn Gud þinn mun gefa þer.

17. Þú ſkallt eigi ſhel ſlá.

18. Þú ſkallt eigi hórdom dryga.

19. Þú ſkallt eigi ſtela.

20. Þú ſkallt eigi liúgvitne mæla á móte náunga þínum.

21. Þú ſkallt eigi gyrnaſt húsfreyu naunga þíns. Þú ſkallt eigi gyrnaſt þíns náunga hús, akur, þionuſtu mann, þionuſtu kvinnu, uxa, aſna, edur nockud þad hann á.

22. Þeſſe eru þau ord ſem Drottinn talade til alls mannſiølda ydars, á fiallenu, úr elldenum, ſkyenu, og myrkrenu, med hárre rauſto, og jók þar engo vid, og ſkrifade þau á tvær ſteintøblur, og feck mer þær.

23. Enn þá þer heyrdud røddena, úr dimmunne, og fialled brann í

elldenum, geingud þer til mín, aller fyrermenn á medal ydarra ætta, og ydrer ollbungar, og søgdu.

24. Siá þú! Drottinn Gud vor hefir láted oss siá sína dyrd, og sitt tignar vellde, og ver heyrdum hans raust úr elldenum. Ver sáum í dag, ad Gud talar vid mennena, og þeir hallda þo lífenu,

25. Og hvar fyrer skulum ver nú deya, so þad þesse hinn mikle elldur skule nú foreyda oss? ef ad ver heyrum nú leingur raustena Drottins Guds vors, þá deyum ver.

26. Þvi hvad er allt holld þess, ad þad kunne ad heyra raust lifanda Guds tala úr elldenum, so sem ver, og hallda lífenu?

27. Gack þú framm, og heyr allt hvad Drottinn Gud vor seiger, og seig þú oss þad: ver vilum heyra og gera þad, allt hvad Drottinn Gud vor talar vid þig.

28. Þá Drottinn heyrde ydar ord, sem þer tøludud vid mig, sagde hann til mín: eg hefe heyrt ord þessa folks, sem þad talade til þín, þad er allt godt hvad þeir hafa talad.

29. Ach! hefdu þeir soddann hiarta ad óttast mig, og ad hallda øll mín bodord, um þeirra lífdaga, so ad þeim mætte vel ganga, og þeirra børnum eylíflegana.

30. Gack þú burt og seig þú þeim: ganged heim í ydar landtiølld,

31. Enn þu skallt standa her fyrer mer, so ad eg tale vid þig øll bodord, setninga og rett, sem þu skallt kenna þeim, so ad þeir gere þar epter, í landenu, sem eg mun gefa þeim ad eignast.

32. So hallded þad nú, ad þer gered líka sem Drottinn Gud ydar hefir boded ydur, og víked hverke til hægre ne vinstre handar.

33. Helldur ganged í øllum vegum, sem Drottinn Gud ydar hefir boded ydur, so ad þer meiged lifa, og ydur vel vegne, og þer lifed leinge í þvi landenu, sem þer skulud eignast.

## 6. Capitule.

1. Þesse eru þau løginn, og bodordinn, og rettindenn, sem Drottinn Gud ydar hefir boded, ad þer skulud læra, og gera þau í þvi landenu, sem þer nú inn fared til ad eignast.

2. Ad þú skallt óttast Drottinn Gud þinn, og hallda øll hans rettinde og bodord, þau sem ad eg byd þer, bæde þú og þín børn, og þín barnabørn, um alla ydra lífdaga, so ad þer meiged leinge lifa.

3. Og þú Israel skallt heyra og vardveita þetta, og gera þar epter, so ad þer gange vel, og þú meiger fiølgast miklu meir, so sem þad Drottinn Gud fedra þinna hefir lofad þer í þvi lande, sem miolk og hunáng flytur í.

4. Heyr þú Israel! Drottinn Gud vor er einn einungis Drottinn.

5. Þú skallt elska Drottinn Gud þinn af øllu þínu hiarta, af allre sálu þinne, og af øllum þínum førmætte.

6. Og þesse ord sem eg byd þer í dag, skallt þú leggia upp á hiartad,

7. Og þú skallt bryna þau alltiafnt fyrer børnum þínum, og ræda um þau, nær ed þú situr í þínu húse, og nær ed þú geingur um farenn veg, nær ed þú leggur þig nidur, edur, stendur upp.

8. Og þú skallt binda þau til merkis á þína hønd, og þau skulu vera þer minningar teikn fyrer þínum augum,

9. Og þú skallt skrifa þau á þína dyra stafe, og á dyrnar.

11. Nær ed Drottinn Gud þinn leidder þig inn í þad landid, sem hann hefir svared þínum fedrum,

Abraham, Isaac og Jacob, ad gefa þer stóra og ágiæta stade, hvera ed þú hefir eigi uppbyggt,

11. Og húsenn full med alls hátt: ud audæfe, þau sem þú hefir eigi uppfyllt, og út-høggna brunna, þá sem þú hefir eigi út høggved, og vín: garda og oliugarda, þá sem þú hefir eigi plantad, so ad þú etur og verd: ur mettur,

12. Þá vara þig vid því, ad þú gleymer eigi Drottni, þeim sem út leidde þig af Egyptalande, af þræl: doms húsenu,

13. Hellldur skalltu óttast Drott: inn Gud þinn, og þiona honum, og sveria vid hans nafn.

14. Og þú skallt eigi epterfylgia annarlegum Gudum, þess folksins, sem kringum ydur er.

15. Þviad Drottinn Gud þinn er einn vandlátur Gud, á medal þín, so ad reide Drottins Guds þíns uppæsist eigi yfer þer, og afmáe þig af jørdunni.

16. Þer skulud eigi freista Drott: ins Guds ydars, so sem ad þer freistudud hans í Massa,

17. Helldur skulud þer hallda bodord Drottins Guds ydars, og hans vitnisbúrde, og hans rettinde, þau sem hann hefir boded.

18. So ad þú gerer þad sem godt og rettvíst er fyrer augum Drott: ins, so ad þer meige vel vegna, og ad þú meiger inn fara, og eignast þad góda landid, hvert ed Drottinn hefir svarid þínum forfedrum,

19.* Ad hann skule útdrifa alla þína óvine fyrer þer, so sem þad Drottinn hefir sagt.

20. Nær ed sonur þinn spyr þig nú ad í dag eda á morgun, og seig: er: hvada vitnisbúrdum, bódum og rettindum er þad, sem Drottinn Gud vor hefir boded ydur?

21. Þá skallt þú seigia til sonar þíns: ver vorum þrælar Pharaonis í Egyptalande, og Drottinn hann útleidde oss af Egyptalande med volldugre hendi.

22. Og Drottinn gerde stór og ill tákn og furdu verk, yfer Egypta: lande og Pharaone, og yfer øllu hans húse, fyrer vorum augum.

23. Og hann leidde oss út þad: ann, so ad hann innleidde oss, og giæfe oss þad land sem hann hafde svared forfedrum vorum.

24. Og Drottinn hefir boded oss ad gera epter øllum þessum rette, ad ver skulum óttast Drottinn Gud vorn, so ad oss gange vel alla vora lífdaga, so sem þad geingur nú þennann dag.

25. Og þad skal vera vort rettlæte fyrer Drottni vorum Gude, ef ad ver holldum og gerum øll þesse bod: ord, eins og hann hefir boded oss.

## 7. Capitule.

1. Nær ed Drottinn Gud þinn innfærer þig í landed, í hvert þú munt innkomg ad eignast þad, og útdrífur fyrer þer margar þióder, sem eru þeir Hethitar, Girgositar, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar, siø þioder, sem eru stærre og sterkare enn þú ert.

2. Og nær ed Drottinn Gud þinn ofurgefur þer þær, so ad þú slæer þær, þá skalltu bannfæra þær, ad þú gerer engann sáttmála vid þær eigi hellldur audsyner þeim nockora nád.

3. Þú skallt engar mægder ge: ra vid þær; þú skallt eigi gefa þeirra sonum þínar dætur, og þeirra dæt: ur skulud þer eigi taka til handa ydrum sonum.

4. Þviad þær koma ydrum son: um til ad falla frá mer, ad þeir þione annarlegum Gudum, so mun

þá reidi Drottins gremiast yfer ydur, og afmá ydur skiotlegana.

5. Helldur skulud þer gera so vidur þá: þeirra alltare skulud þer nidurbrióta, þeirra stoder í sundersla, þeirra lunda afhøggva, og þeirra God í ellde uppbrenna.

6. Þviad þú ert Drottni þínum Gude eitt heilagt folk. Og Drottinn Gud þinn hefir útvaled þig til følks síns eigendoms, út af øllu folke, þvi sem er á jørdu.

7. Eigi hefir Drottinn mødtekeð og útvaled ydur fyrer þad, ad þer værud meire enn allar adrar þióder, þvi þú ert hin minnsta medal allra þioda.

8. Helldur af þvi, ad hann hefir elskad ydur, og þad han hellde sinn eid, sem hann hafde svared ydrum forfedrum, þá hefir hann útleidt ydur med volldugre hende, og frelsad þig út af þvi þrælboms húse, af Pharaonis Hendi, kongsins af Egyptalande.

9. So skallt þú nú vita, þad Drottinn þinn er einn Gud, einn trúfastur Gud, sem helldur sáttmála og miskunseme í þusund lidu, vidur þá sem hann elska, og hans bodord vardveita,

10. Og endurgelldur þeim sem hann hata, fyrer sínu auglite, so ad hann fyrerfare þeim, og hann forsómar eigi ad endurgiallda þeim fyrer sínu auglite, sem hann ad hatre hafa.

11. So halltu nú þau bodordenn, þá lagasetninga, og rettinde, sem eg byd þer í dag, ad þú gerer þar epter.

12. Og nær ed þer heyred þessa løgmáls setninga, og hallded þá, og gered þar epter, þá mun og Drottinn Gud þinn hallda þann sáttmála og miskunseme, sem hann hefir svared þínum forfedrum,

13. Og hann mun elska, blessa, og margfallda þig. Og hann mun blessa þinn líss ávørt, og þann ávøxtenn þíns lands, þitt korn, þitt vín, þitt vidsmiør, ávøxtenn þinna kúa, og þann ávøxtenn af þínum saudum, í þvi landenu sem hann hefir svared forfedrum þinum, ad gefa þer.

14. Þú munt blessadur vera yfer allt folk; þar skal eingenn vera ófrióssamur á medal þín, og eigi helldur á medal þíns fenadar.

15. Drottinn mun í burt taka frá þer allann siúkdom, og leggia engann vondann Egyptskann krankleika á þig, sem ad þú veitst vel, og hann mun leggia hann uppá alla þína Haturs Menn.

16. Þú munt uppsvelgia allt þad folk, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer: þú skallt eigi vægia þvi, og eigi þióna þeirra Gudum, þviad þad mun þer verda til einnrar tálsnøru.

17. Enn ef ad þú seiger í þínu hiarta: þetta folk er fleyra enn eg em, hvernenn kann eg ad útdrífa þad?

18. Þá vert þú eigi hræddur fyrer þeim. Hugsa þú hvad Gud þinn hefir gert Pharaoni og øllum Egyptalands mønnum,

19. Fyrer þær miklu freistaner, sem þú sást med augunum, og fyrer þau tákn og stórmerke, hvernenn þad Drottinn Gud þinn útleidde þig med volldugre hendi, og útrettum armlegg. So mun og Drottinn þinn gera øllu þvi folke sem þú ert hræddur vid.

20. Og Drottinn Gud þinn mun senda Geitahame á medal þeirra, þar til ad þad verdur állt í eydelagt sem epter er orded, og sig hefir geymt fyrer þer.

21. Vert þú eigi hræddur vid þá,

þviad Drottinn Gud þinn er med þer, sá hinn mikle og ógurlege Gud.

22. Drottinn Gud þinn mun foreyda þessu folke fyrer þer, þann eina epter þann annann. Þú kannt eigi brádlega at útdrífa þad, so ad skógdyrenn verde eigi ófmørg imóte þer í landenu.

23. Drottinn Gud þinn mun uppgefa þá fyrer þer, og mun slá þá nidur med miklu mannslage, allt þar til er hann hefir foreydt þeim.

24. Og hann mun gefa þer þeirra konunga í þínar hendur, og þú skallt foreyda þeirra nøfnum under himnenum, þar skal eingenn kunna ad standa móte þer, þar til þú hefir foreydt þeim.

25. Þú skallt uppbrenna med ellde líkneske skúrgoda þeirra, og þú skallt eigi gyrnast á þad gull eda silfur sem þar er á, ellegar ad taka til þín nockud þar út af, so ad þú miſsgríper þig eigi þar úti. Þviad soddann er fyrer Drottni Gude þínum ein svivirding.

26. Þar fyrer skalltu eigi bera þá svivirding ínn í þitt hús, ad þú verder eigi forbannadur so sem ad þad sama er, helldur skalltu hafa einn vidbiód og hrilling vidur þvi, þviad þad er bansett.

## 8. Capitule.

1. Þer skulud hallda øll þau bodord sem eg byd ydur í dag, so ad þer gered þar epter, uppá þad þer meigid lifa, og fleyre verda, og innkoma ad eignast þad landed sem Drottinn hefir svared ydrum forfedrum.

2. Og þer skal til hugar koma allur sá vegur, sem Drottinn Gud hefir leidt þig í gegnum, á þessum fiørutíu árum í eydemørkenne, ad hann villde audmykia og reyna þig so ad þad yrde auglióst, hvad í þínu hiarta være, hvert þú munder hallda hans bodord, eda ei.

3. Hann audmykte þig, og let þig hungra, og gaf þer man ad eta, sem hverke þú edur þíner forfedur þecktu, so ad hann villde láta þig vita, þad madurenn life eigi alleinasta af braudenu, helldur af øllu þvi sem útgengur af munne Drottins.

4. Þín klæde hafa eigi af alldre slitest á þer, og þíner fætur hafa eigi þrútnad í þesse fiørutíu ár.

5. So kanntu nú ad vidurkenna í þínu hiarta, ad Drottinn Gud þinn hefir uppfædt þig, líka sem þad ad einn madur uppfæder son sinn.

6. So vardveit þú nú bodordenn Drottins Guds þíns, ad þú ganger á hans vegum, og óttest hann.

7. Þviad Drottinn Gud þinn innleidde þig í eitt godt land, í þad landed sem læker, uppsprettubrunnar, og støduvøtn inne eru, sem framm slióta hiá fiøllunum, og í dølunum,

8. Eitt land, þar ed hveite, bygg, vínvider, fikiutre, og granataeple inne eru, eitt land, þar ed vidsmiørs tren, og hunáng vaxa úti,

9. Eitt land, þar þu inne hefir nóg braud ad eta, og þig þrytur eigi neitt, eitt land, hvers steinar ad eru iárn, þar ed þú kannt ad høggva málm úr fiøllunum.

10. Og nær þú hefir matar neytt og ert mettur, ad þú þá lofer Drottenn Gud þinn, fyrer þad góda landed, sem hann hefir gefed þer.

11. So vara þig nú vid því, ad þú forgleymer eigi Drottni Gude þínum, í því, ad þú vardveiter eigi hans bodord, rettinde og lagasetninga, sem eg byd þer í dag,

12. Ad þá, nær ed þú hefir nú etid, og ert mettur, og þá þú hefir

uppbyggt prydeleg hús, og þú byr í þeim,

13. Þín naut og þíner sauder, silfur og gull, og allt þad þú hefir, ávaxtar sig,

14. Ad þitt hiarta stære sig þá eigi og forgleyme Drottni þínum Gude, sem útleidde þig af Egyptalande, af þrældoms húsinu.

15. Og leidde þig í gegnum hina miklu og hrædelegu eydemørku, þar sem ad voru brennande høggormar og scorpiones, og eigi utann þurkur og vatnsleysur, og hann let vatn uppspretta af hørdum steine tilhanda þer.

16. Og fædde þig med man í eydemørku, af hvern þíner forfedur vissu eigi neitt ad seigia, ad hann so audmykte og reynde þig, ad hann gerde þer so þar epter til góda.

17. Þú hefder ellegar mátt seigia í þínu hiarta, mín magt sialfs, og stirkur minna handa hefir orkad mer þessa megtuga gernings.

18. Helldur þad þú minnest á Drottinn Gud þinn, þviad hann er sá sem þer gefur krapt til ad gera so mikels háttar gerninga uppá þad, ad hann villde hallda sinn sáttmála, sem hann hefir svared þínum forfedrum, so sem þad geingur nú til á þessum deige.

19. Enn forgleymer þú Drottni Gude þínum, og epterfylger annarlegum Gudum, og þiónar þeim, og tilbidur þá, þá vitna eg yfer ydur í dag, ad þer stulud med øllu eydeleggiast.

20. Líka sem þeir heidingiarner, hverum ed Drottinn foreydde fyrer ydri augsyn, so líka skulud þer og einnenn fyrerfarast, af þvi þer hafed eigi hlyduger vered raustenne Drottins Guds ydars.

## 9. Capitule.

1. Heyr þú Jsrael, þú munt í dag ganga yfer um Jordan, so ad þu kunner inn ad koma, og under þig ad leggia þær þioder, sem ad eru stærre og sterkare enn þú, stóra stade, upp múrada allt í himenenn,

2. Eitt stórt, hátt folk, Enakims børn, hvera ed þú hefir þeckt, og heyrt geted; hver kann ad standa imóte Enaks børnum?

3. So skalltu vita í dag, ad Drottinn Gud þinn geingur fyrer þer, einn foreydandi elldur, hann mun foreyda þeim, og underleggia þá fyrer þer, og hann mun í burt drífa þá, og fyrerkoma þeim snarlega, so sem þad Drottinn hefir tilsagt þer.

4. Nær ed Drottinn Gud þinn hefir nú útdrifed þá fyrer þer, so seig þú eigi í þínu hiarta: Drottinn hefir innleidt mig til ad eignast þetta land, fyrer míns rettlætis saker, þviad Drottinn í burtdrífur þessa heidingia fyrer þer, fyrer saker þeirra ógudlegs athæfis.

5. Þvi þú kemur þar eigi inn, til ad eignast þeirra land, vegna þíns rettlætis, og eigi fyrer þíns hiartans rettvise saker, helldur útdrífur Drottinn Gud þinn þessa heidingia fyrer þer, vegna þeirra sialfra ógudlegs athæfis, so þad Drottinn villde hallda þau ord, sem hann sór þínum forfedrum, Abraham, Isaac, og Jacob.

6. So skalltu nú vita, ad Drottinn Gud þinn gefir þer eigi þetta góda landed ad eignast, fyrer þíns rettlætis saker, af þvi, ad þú ert eitt hardhnackad folk.

7. Hugleid þú þad, og gleym þvi eigi, hvernenn ad þú reitter Drottinn Gud þinn til reide á eydemørkenne. Í frá þeim deige ed þú forst

út af Egyptalande, allt til þess er þer komud hingad til þessa stadar, þá hafed þer vered Drottni óhlyduger.

8. Þviad í Horeb reittud þer Drottinn so miøg, ad hann í reide villde þá í eyde hafa lagt ydur.

9. Þá eg var upp geingenn á fialled, ad medtaka þau steinspiølldenn, þær sáttmálans tøblur, sem Drottinn gerde vid ydur, og eg var þar á fiallenu í fiørutíu daga og fiørutíu nætur, og eg át eigi braud, og drack eigi vatn.

10. Og Drottinn gaf mer tvær stein tøblur, sem voru skrifadar med Guds fingre, og þar á øll þau ord sem Drottinn talade vid ydur á fiallenu af elldenum, á þeim deige sem þer vorud þar tilsamans komner.

11. Og þá ed þeir fiørutíu dagar og fiørutíu nætur voru lidnar, þá gaf Drottinn mer tvø steinspiølld sáttmálans,

12. Og sagde til mín: statt upp; far þú snarlega ofann hedan, þviad þitt folk, sem þú útleidder af Egyptalande, hefir sannlega misgert, þeir eru þegar afgeingner þeim veige sem eg baud þeim, þeir hafa gert ser eitt steypt líkneske.

13. Og Drottinn sagde til mín: eg se, ad þetta folk er eitt hardsvírad folk,

14. Láttu mig vera, so ad eg foreyde þeim, og afmáe þeirra nøfn under himnenum; eg vil gera eitt stærra og sterkara folk út af þer enn þetta er.

15. Og sem eg snere mer, og geck ofann af fiallenu, sem logade med elldi, og hafde þau tvø sáttmáls spiølldenn í mínum bádum høndum.

16. Þá leit eg vid, og siá, þá høfdud þer misgert vid Drottinn ydarn Gud, í þvi ad þer gerdud ydur einn steypptann kálf, og vorud þá þegar afgeingner af þeim veigenum, sem Drottinn baud ydur.

17. Þá greip eg bæde spiølldenn, og fleygda eg þeim af bádum høndum, og í sundur braut þau fyrer ydrum augum.

18. Og eg fell framm fyrer Drottinn, so sem í fyrstu, í fiørutíu daga, og fiørutíu nætur, og eg át eigi braud, og drack eigi vatn, fyrer allra ydara synda saker, sem þer høfdud misgert, þad þer gerdud soddann illskú-gerning, fyrer Drottni, ad reita hann so til reide.

19. Þviad eg var hræddur fyrer þeirre reide og heiptar bræde, medur hverre ad hann var til reide egndur yfer ydur: svo ad hann villde afmá ydur, enn Drottinn bænheyrde mig og so í þad sama Sinn.

20. Og Drottinn vard miøg reidur vid Aaron, so ad hann villde afmá hann. Enn eg bad þann sama tíma fyrer Aaron.

21. Enn ydar synd, þann kálfenn sem þer høfdud gert, tók eg, og brenndi hann upp í elldе, og í sundur braut hann, og eg molade hann í sundur í smátt, þangad til ad hann vard ad dupte, og eg kastade þvi duptenu í þann læk, sem þar rann ofann af fiallenu.

22. Líka so gerdud þer Drottinn og reidann í Thabera, og Massa, og í hiá Gyrndargrøfunum.

23. Og þá ed hann sende ydur út af Kades Barnea, og sagde: fared upp og eigneft þad landed, sem eg hefe gefed ydur, þá vorud þer óhlyduger munne Drottins Guds ydars, og trúdud eigi á hann, og hlyddud eigi hans raust.

24. Þviad þer hafed vered Drottni óhlyduger, so leinge sem þad eg hefe þeckt ydur.

25. Þá fell eg framm fyrer Drottinn í fiørutíu daga, og fiørutíu nætur, á hverum eg lá þar, þvíad Drottinn sagde: ad hann villde afmá ydur.

26. Enn eg bad Drottinn og sagde: Drottenn! Drottenn! fordiarfa eigi þitt fólk, og þína arfleifd, sem þú frelsader med þínum mikla krapte, og útleidder af Egyptalande med volldugre hendi.

27. Minnstu á þína þenara, Abraham, Isaac, og Jacob, alít þú eigi hardúd og illskufullt athæse og misgerder folks þessa,

28. So ad þad land skule eigi seigia, af hveru þú útleidder oss: Drottinn gat eigi innleidt þá í þad landed, sem hann lofade þeim, og hefir þvi útleidt þá, ad hann vard þeim reidur, ad hann so nidurdrepe þá í eydemørkenne.

29. Þvíad þeir eru þitt folk, og þín arfleifd, hvert ed þú útleidder med stórum krapte, og med þínum útrettum armlegg.

## 10. Capitule.

1. Á þeim sama tíma sagde Drottinn til mín: uthøgg þú þer tvø steinspiølld, sem ad þau hin fyrre voru, og kom til mín uppá fialled, og ger þer eina ørk af tre,

2. Þá vil eg skrifa þau ordenn á spiølldenn, sem voru á hinum fyrrum, sem þú braust í sundur, og þú skallt leggia þau í ørkena.

3. Þá gerda eg eina ørk af tre, og úthió tvø steinspiølld, líka sem þau hin fyrre voru, og geck uppá fialled, og hafde þau tvø steinspiølld í mínum høndum.

4. Þá skrifade hann á spiølldenn, líka sem þad skrifad var á þeim hinum fyrrum, þau tíu bodordenn sem Drottinn talade til ydar af elldenum, uppá fiallenu, þá ed ver vorum þar tilsamans komner, og Drottinn feck mer þau.

5. Og eg snere mer, og geck ofann af fiallenu, og lagde spiølldenn í þá ørkena sem eg hafda gert, ad þau skylldu vera þar úti, líka sem þad Drottinn hafde boded mer.

6. Og Israels børn ferdudust í burt af Beroth Bne Jakan til Moser (þar andadest Aaren, og var jardadur, og hans sonur Eleasar vard kennemadur í hans stad.)

7. So foru þeir þadann og til Gudegoda, og frá Gudegoda til Jathbath, í þad land sem lækerner eru.

8. Í þann sama tíma fráskilde Drottinn ættkvísl Levitanna, ad þeir skylldu bera sáttmáls ørk Drottins, og standa fyrer Drottni, og þiona honum, og lofa hans nafn, allt til þessa dags.

9. Þar fyrer skulu Levitarner ecke hlutskipte eda arftøku hafa med þeirra brædrum, þvíad Drottinn er þeirra arfleifd, so sem þad Drottinn Gud þinn hefir lofad þeim.

10. Og eg stód þá, sem ádur fyrre, í fiørutíu daga, og fiørutiu nætur, á fiallenu, og Drottinn bænheyrde mig í því sama sinne, og villde eigi fordiarfa þig.

11. Enn hann sagde til mín: tak þig upp, og far hedann, ad þú gangerer fyrer folkenu, ad þad meige innkoma, og eignast þad landed, sem eg hefi svared ad gefa þeirra forfedrum.

12. Nú Israel! hvers krefur Drottinn Gud þinn af þer? utann þess, ad þú skuler óttast Drottinn Gud þinn, so ad þú ganger á øllum hans vegum, og elsker hann, og þióner Drottni Gude þínum af øllu þínu hiarta, og af allre þinni sálu,

13. So ad þú hallder hans bod-

ord og hans rettinde, sem eg byd þer í dag, uppá þad þer skule vel vegna.

14. Siá þú, himenenn, og aller himnanna himnar, og jørdenn, og allt þad, hvad þar er inne, þad er Drottins Guds þíns,

15. So hefir hann alleinasta haft gedþeckne til þinna forfedra, so ad hann elskade þá, og hefir utvaled þeirra sæde epter þá, ydur yfer allt følk, so sem þad er nú þennann dag.

16. Þar fyrer umskered nú yferhúd ydars hiarta, og vered eigi hedann í frá hardsvirader.

17. Þviad Drottinn Gud ydar er einn Gud yfer øllum Gudum, og einn Drottinn yfer øllum Drottnum, einn mikels-háttar Gud, volldugur og hrædelegur, og virder eigi neins personu, og þiggur engar mútur,

18. Og gerer føðurlausum børnum og eckium rettann dom, og elskar hina framande, so ad hann gefir þeim mat og klæde.

19. Þar fyrer skulud þer og elska hina framande, þviad þer hafed og framande vered í Egyptalande.

20. Þviad Drottinn Gud þinn skalltu óttast; honum skalltu þióna; hann skalltu adhyllast, og vid hans nafn skalltu sveria.

21. Hann er þinn lofstyr, og þinn Gud, sem hefir gert so mikla og hrædelega hlute hiá þer, sem þín augu hafa sed.

22. Þíner forfedur fóru ofann í Egyptaland, siøtíu sáler, enn nú hefur Drottinn Gud þinn fiølgad þig, so sem stiørnur á himne.

## 11 Capitule.

1. So skalltu nú elska Drottinn Gud þinn, og hallda hans løgmál, setninga, rettinde, og bodord, alla þína lífdaga,

2. Og medkennid í dag, þad sem ydar børn vita eigi ne hafa sed, einkum, sem er typtan Drottins Guds ydars, hans dyrd, þar til hans vollduga hønd, og útrettur armleggur,

3. Og hans stór undur og dádsemdar verk, sem hann gerde medal Egyptsku Manna, á Pharaone Egypta konge, og á øllu hans lande,

4. Og hvad hann hefir gert vid þá magtena Egyptsku Manna, vid þeirra vagna og víghesta, þá ed hann leidde vatned í þvi rauda hafe yfer þá, þá tíd, þeir fóru epter ydur, og Drottinn foreydde þeim allt til þessa dags.

5. Og hvad hann hefur gert vid ydur í eydemørkenne, allt til þess ad þer komud í þenn ann stad.

6. Og hvad hann gerde vid Dathan og Abiram, þá sonu Eliabs, sonar Rubens, hvernenn þad jørdenn opnade sinn munn og svelgde þá í sig, med þeirra heimkinne og tialldbudum, og øllu þeirra gotse, sem þeir høfdu aflad, midt á medal alls Israels.

7. Þviad ydar augu hafa sed þau miklu dádsemdarverk Drottins, sem hann hefir gert,

8. Þar fyrer skulud þer hallda øll þau bodord sem eg byd ydur í dag, so ad þer mættud stirkter verda inn ad koma, og ad eignast þad landed sem nú fared þer til, inn ad taka,

9. Og ad þú meiger leinge lifa í þvi sama lande sem Drotttinn hefir svared þínum forfedrum, ad gefa þeim og þeirra sæde, eitt land þar miolk og hunáng flytur í.

10. Þvi þad land sem þú kemur til ad eignast, er eigi sem Egyptaland, af hveru þer erud útfarner, þar er þú siálfur sáder þinu sæde, og hlautst siálfur ad bera vatn á þad, sem á annann kálgard.

11. Helldur hefur þad fiöll og dale, sem döggenn af himnum mun vökva.

12. A hveru lande ad Drottinn Gud þinn hefur giætur á, og augu Drottins Guds þíns alíta þad med jafnade, í frá upphafenu arsins, og allt til þess enda.

13. Ef ad þer hlyded nú mínum bodordum, sem eg byd ydur í dag, so ad þer elsked Drottinn Gud ydarn, og þióned hönum af öllu hiarta, og af allre sálu,

14. Þá vil eg gefa ydru lande regn, í tilheyrelegann tíma, bæde sídla og snemma, so ad þú innsafner þínu korne, þínu víne, og vidsmiöre.

15. Og eg vil gefa þínum fenade gras af haganum, so ad þer skulud eta, og verda sadder.

16. Enn þer vared ydur vid þvi, ad þer láted eigi ydar hiörtu áhlydast ad víkia frá, og þióna framande Gudum, og tilbidia þá.

17. Og þad reide Drottins gremest yfer ydur, og láte aptur himenenn, so ad þar kome eigi regn, og jördenn gefe eigi sinn ávört, og ad þer foreydest þá snarlega, burt af þvi góda landenu, sem Drottinn hefir gefed ydur.

18. So rótfested nú þesse ord í hiartanu, og í ydrum sálum, og binded þau til merkis á ydar hendur, ad þau seu eitt minning fyrer ydrum augum.

19. Og kenned þau börnum ydrum, so ad þú taler um þau, nær ed þú situr í þínu húse, eda geingur farinn veg, nær þú leggur þig nidur, og nær ed þú stendur upp,

20. Og skrifa þau á dyrastafe þíns hús, og á þínar dyr.

21. So ad þú og þín börn meige leinge lifa í þvi landenu, sem Drottinn hefir svared forfedrum þínum, ad gefa þeim, so leinge sem dagar af himnenum vara á jördunne.

22. Þvi ef ad þer halldeð öll þesse bodord, sem eg byd ydur, og gered þar epter, ad þer elsked Drottinn Gud ydarn, og ganged á öllum hans vegum, og hyllest hann ad,

23. Þá mun Drottinn útdrífa allt þetta folk fyrer ydur, so ad þer skulud under ydur leggia stærra og sterkara folk enn þer erud.

24. Og hver sá stadur sem þer setid ydra fætur á, þá skal hann vera ydar eign, í frá eydemörkenne, og í frá fiallenu Libanon, og í frá þvi vatnenu Phrath, allt út til þess ytsta hafsins, þad skal vera ydar landamerke.

25. Nar skal eingenn kunna ad standa í móte ydur. Hrædslu og skelfing af ydur mun Drottinn koma láta yfer öll þau lönd, um hver þer reised, so sem hann hefir sagt ydur.

26. Siá þú, eg frammset fyrer ydur í dag blessanena og bölvanena,

27. Blessanena, ef ad þer hlyded þeim bodordum Drottins Guds ydars, sem eg byd ydur í dag,

28. Enn bölvanena, ef þer hlyded eigi bodordum Drottins Guds ydars, og víked af þeim veigenum sem eg byd ydur í dag, so ad þer epterfylged annarligum Gudum, sem þer þeckid eigi.

29. Nær ed Drottinn Gud þinn innleider þig í þad landed, þá þú kemur inn til ad eignast þad, þá skalltu úthrópa blessanena uppá fiallenu Grizim, og bölvanena uppá fiallenu Ebal,

30. Hver ad eru hinummeigenn Jordanar, á þeim veigenum mót vestrenu í Canaans lande, þeirra sem búa á þvi slettlendenu gegnt Gilgal, hiá lundenum More.

31. Þviad þú skallt ganga yfer um Jordan, so ad þú komer inn þangad, til ad eignast landed sem Drottinn Gud ydar hefir gefed ydur, ad þer skulud eignast þad, og búa þar inne.

32. Þar fyrer gæted ad því, ad þer gered epter øllum þeim bodordum og rettindum, sem eg legg fyrer ydur í dag.

## 12. Capitule.

1. Þesse eru þau bod og rettinde sem þer skulud hallda, ad þer gered þar epter í því landenu, sem Drottinn Gud fedra ydra hefir gefed ydur til eignar, so leinge sem þer lifed á jørdunne.

2. Nidurbrióted ad velle alla þá stade, þar sem heidingiarner (þeir ed þer skulud under ydur leggiá) hafa þiónad þeirra Gudum úti, bæde á háfiøllum, og á smá hædum, edur under þeim blomgudum vidartriánum.

3. Og nidur ríful þeirra stalla, og í sundur brióted þeirra stólpa, og uppbrenned med elldе þeirra lundi, og í burt taked líkneske þeirra afguda, og forеyded þeirra nøfnum af þeim sama stad.

4. Þer skulud eigi gera Drottni Gude ydrum soddann,

5. Helldur í þeim stad sem Drottinn Gud ydar hann útvelur, á medal allra ydra kinkvísla, ad hann vile láta sitt nafn þar búa, þar skulud þer epter spyria, og þangad skulud þer koma.

6. Og flytia þangad ydart brenneoffur, og adrar fórner, og ydar tíunder, og þad upphafningaroffur ydvara handa, og ydar heit, og ydar sialfkrafa fórner, og þá frumburde ydars stórsenadar og saudfiárs.

7. Og þar skulud þer eta fyrer Drottni Gude ydrum, og vera glader af øllu því sem þer og ydart heimkinne bered þangad, hvarmed Drottinn Gud þinn hefir blessad þig.

8. Þer skulud eigi gera neitt soddann, sem ver gerum her í dag, hver epter því sem honum sialfum þyker rett vera,

9. Þviad þer erud enn eigi inn komner til hvíldarennar, eigi helldur til arfleifdarennar, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer.

10. Enn þer skulud ganga yfer um Jordan, og búa í landenu, því sem Drottinn Gud ydar mun hlutskipta ydur til arftøku, og mun gefa ydur hvíld fyrer øllum ydrum óvinum, allt umkring ydur, og þer munud búa uggalauser.

11. Nær ed Drottenn Gud ydar útvelur nú einn stad, þar hans nafn skal búa, þá skulud þer hafa þangad allt þad sem eg byd ydur, ydart brenneoffur, adrar ydar fórner, ydar tíunder, ydart handanna uppshafningaroffur, og øll ydar heit sem þer lofed sialfkrafa Drottni,

12. Og þer skulud glader vera fyrer Drottni Gude ydrum, þer og ydrer syner, og ydar dætur, og ydrer þiónustu Menn, og þiónustu kvinnur, og Levitarner sem eru innan ydara stadar-dyra, þviad þeir hafa enga hlutdeild, edur arftøku med ydur.

13. Vara þig vid því, ad þú offrer eigi þínu brenneoffre í øllum þeim stødum sem þú ser,

14. Helldur í þeim stad sem Drottinn útvelur, á medal einnrar af þínum kinkvíslum: þar skalltu offra þínu brenneoffre, og gera allt þad eg byd þer.

15. Þó máttu slátra og kiøt eta innann allra þinna dyra, epter allre lystingu þinnar sálar, epter Drott-

sins Guds þíns blessan, sem hann hefir gefed þer, bæde hinn hreine og hinn óhreine meiga eta þar af, sem af einu rádyre og hiørte.

16. Þó so, ad þú eter eigi blódet, helldur útheller þvi á jørdena sem vatne.

17. Enn eigi mátt þú eta innann þinna stadar dyra af tíundenne þíns kornsædis, þíns víns, þíns vidsmiørs, ne af þeim frumburdenum þinna kúa, þíns saudsiár, eda nockud af þeim áheitum sem þú hefur lofad, edur af þínu sialfkrafa offre, edur af þinnar handar uppháfningaroffre.

18. Helldur skalltu soddann eta fyrer Drottni þínum Gude, í þeim stad sem Drottinn Gud þinn útvelur, þú og þinn sonur, þín dótter, þinn þiónustu madur, þín þiónustu kvinna, og þeir Levitarner sem eru innann þinna borgarhlida. Og skallt þú vera gladvær fyrr Drottni Gude þínum, af øllu þvi sem þú ber þangad.

19. Og vara þig vid þvi, ad þú yfergefer eigi Levitana, alla þá daga þu lifer á jørdu.

20. Nær ed Drottinn Gud þinn gerer þín landamerke vídare, so sem þad hann hefir tilsagt þer, og þú seiger: eg vil eta kiøt, af þvi ad min sála hefir lyst̃ing til ad eta kiøt, þá et kiøt sem þín sálølldungis lyster.

21. Enn ef sá stadurenn er langt í burtu frá þer, sem Drottinn Gud þinn hefir útvaled, ad láta sitt nafn þar byggia, þá slátra af þínum nautum, edur saudfe, sem Drottinn hefir gefed þer, líka sem eg hefe bodед þer, og et þad innann þinna stadar dyra, epter allri lystíng þinnar sálar.

22. Líka sem þad madur hann etur eitt rádyr, edur einn hiørt, so máttu þad eta: bæde sá hinn hreine og hinn óhreine meiga eta þad til líka.

23. Adeins tak vara, ad þú eter eigi blódet, þviad blódet er sálenn, þar fyrer skalltu eigi eta sálena med kiøtenu.

24. Helldur skallt þú úthella þvi á jørdena sem vatne,

25. Og þú skallt eigi eta þad, so ad þer meigi vel vegna, og þínum børnum epter þig, ad þú hafer gert þad sem rettferdugt er fyrer Drottni.

26. Nær ed þú villt heilagt gera þad nockud sem þer til heyrer, eda heiter þú nockru, þá skalltu taka þad og flytia til þess stadar sem Drottinn hefir útvaled,

27. Og lát þar offra þínu brenneoffre med kiøte og blóde, uppá Drottins Guds þíns alltare. Og þú skallt úthella blódenu af þínu offre, uppá Drottins Guds þíns alltare og eta kiøted,

28. Og sjá þú til, og hlyd øllum þessum ordum sem eg byd þer, so ad þad meige þer vel vegna, og þínum børnum epter þig æfenlega, ad þú hefir þad gert, hvad rettferdugt og þacknæmelegt er fyrer Drottni þínum Gude.

29. Nær Drottinn Gud þinn foreyder fyrer þer þeim heidingiunum, sem þú ferdast nú til under þig ad leggia, og þú byr þar, og eignast þeirra land,

30. Þá vara þig vid, ad þú faller eigi í snøruna, epter þeim, sídann þad þeir voru foreidder fyrer þer, og eigi sinner þeirra Gudum, og seiger: líka so sem ad þetta folk þiónade þeirra Gudum, so vil eg og gera.

31. Þú skallt eigi so breita fyrer Drottni Gude þínum. Þviad þeir gerdu þeirra Gudum allt þad sem

svívirdulegt er fyrer Drottni, og þad sem hann hatar, þviad þeir hafa og upp brennt í ellde sína sonu og dætur, fyrer þeirra Gudum.

32. Þer skulud hallda allt þad eg byd ydur, ad þer gered þar epter: þer skulud engu auka þar vid, og eigi neitt taka þar í frá.

## 13. Capitule.

1. Ef ad nockur spámadur ellegar draumspekingur rís upp á medal ydar, og gefur þer eitthvad teikn, edur nockud furdukegt.

2. Og þad-teikn edur stórmerke framm kemur, sem hann sagde þer fyrer, og hann seiger: látum oss epterfylgia annarlegum Gudum, sem þer þecked eigi, og þióna þeim.

3. Þá skalltu eigi hlyda ordum þess sama spámanns eda draumspekings, þviad Drottinn ydar Gud hann freistar ydar, ad hann vill reyna, hvert þer elsked hann, af øllu hiarta, og af allre sálu.

4. Þviad þer skulud epterfylgia Drottni Gude ydrum, og óttast hann, og hallda hans bodord, og hlyda hans raust, og þióna hønum, og hyllast hann ad.

5. Enn sá spámadur edur draumspekingur skal deya, af þvi, ad hann vill burt snúa þer í frá Drottni Gude ydrum, sem útleidde ydur af Egyptalande, og frelsad hefir ydur af þvi þrældoms húsenu, og hann hefir villt þig af þeim veigenum sem Drottinn Gud þinn hefir boded þer ad ganga á, so ad þú kunner ad skilia frá þer þad hid vonda.

6. Nær ed þinn bróder, sonur þinnar módur, ellegar sonur þinn, eda dotter þín, ellegar þín húsfreya í fadme þínum, eda vinur þínn, þann þú elskar sem þitt hiarta, rædur þer heimuglega, og seiger: látum oss fara og þióna annarlegum Gudum, sem hverke þecker þú ne þíner forfedur,

7. Sem eru á medal þess folksins, sem í kringum ydur er, hvert ad þeir eru helldur nærre þer edur fiærre, í frá einum jardar endanum allt til eins annars.

8. Þá samþyck þad eigi med hønum, og hlyd hønum eigi ad. Og þitt auga skal eigi vægia hønum, og þú skallt hønum eigi miskunsamur vera, edur skyla hønum.

9. Helldur skalltu drepa hann; þín hønd skal vera fyrsta yfer hønum, til ad lífláta hann, og sídann þar nærst høndenn alls almúgans.

10. Med grióte skal hann grýttur verda til dauda, þviad hann villde í burt villa þig í frá Drottni Gude þínum, sem útleidde þig af Egyptalande, af þrældoms húsenu,

11. So þad allur Israel meige þad heyra, og óttast, og taka ser eigi framar fyrer hendur ad gera sloddann illskuverk á medal ydar.

12. Ef ad þú heyrer um nockurn af þessum stødum, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer ad búa í, þad Menn seigia:

13. Þar eru nockrer af Belials børnum útgeingner á medal þín, og hafa villt stadarins innbyggiara, og sagt: látum oss fara og þióna annarlegum Gudum sem þer þecked eigi til,

14. Þá skalltu innvirdelega rannsaka, leita og spyriast fyrer þarum. Og ef þad finnst í sannleika, ad þad se so vissulega, ad sú svívirding se skeed á medal ydar,

15. Þá skulltu slá borgarmennena í þeim sama stad med sverds eggium. Og bølva þeim med øllu þvi sem þar er inne, og þeirra fenad, med sverds eggium.

16. Og þú skallt samansafna øllu

þeirra herfánge á midt strætid, og brenna þad upp med ellde, bæde stadenn og allt þeirra herfáng, eitt med ødru, fyrer Drottni þínum Gude, so ad hann ligge þar í einnre hrúgu æfinnlega, og byggest sídann alldrei upp aptur.

17. Og lát eigi neitt af þvi bannfærda loda þer vid hendur, só ad Drottinn meige snúa ser frá sinne heiptar reide, og gefa þer miskunseme, og vera þer líknsamur, og margfallda þig, líka sem hann hefir svared þínum forfedrum.

18. Þvi ad þú hefir heyrt raust Drottins Guds þíns, ad hallda øll hans boderd, sem eg byd þer í dag, so ad þú gerer þad sem rett er, fyrer Drottins Guds þíns augum.

## 14. Capitule.

1. Þer erud børn Drottins Guds ydars; þer skulud eigi vekia ydur beniar, eda raka ydur skollotta fyrer ósann augunu, epter nockurn frámmlidenn,

2. Þvi þu ert eitt heilagt folk Drottins Guds þíns. Og Drottinn hefir útvaled þig, ad þú skuler vera hans eigenndomur, ut af øllu þvi folke sem er á jørdu

3. Þú skallt eigi eta neitt svivirdelegt.

4. Þesse eru þau dyr sem þer skulud eta, naut, sauder, geitfe,

5. Hiørtur, hind, hrein, steingeit, einhyrningur, uruxe, og elgsdyr,

6. Og þer skulud eta allt þad kvikfe sem klaufum fundurskipter og jortrar,

7. Enn þer skulud eigi eta þad sem jortrar, og eigi hefir klaufer. Ulfalldenn, harenn og kunised, þesse jórtra, og hafa þó eigi klaufer; þau skulu vera ydur óhrein.

8. Enn svíned, þó ad þad hafe klaufer, samt þar fyrer, ad þad jórtrar eigi, þá skal þad vera ydur óhreint; þer skulud eigi eta kiøted af þeim, og þeirra hræ skulud þer eigi helldur snerta.

9. Þetta er þad sem þer skulud eta, af øllu þvi sem í vatnenu er, allt þad sem hefir sundugga og hreistur, þad skulud þer eta.

10. Enn þad allt sem eigi hefir sundugga, edur hreistur, þad skulud þer eigi eta, þviad þad er ydur óhreint.

11. Þer meiged eta alla hreina fugla.

12. Enn þesser eru þeir sem þer skulud eigi eta: Ørnenn, Haukurenn,

13. Fiørn-Ormurenn, Gammurinn, Griffuglenn, Glentann med sinne tegund,

14. Og aller hrafnar med þeirra tegund.

15. Strutsfuglenn, Náttuglann, Gaukurenn, Smirellenn med sinne tegund,

16. Hornuglann, Steinuglann, Flædarmúsenn,

17. Reirdromillenn, Skatinn, Alftinn,

18. Storkurenn, Hegrinn med sinne tegund, Veidehoppann og Svalann,

19. Og aller fuglar sem skrída, þá skulu fyrer ydur óhreiner vera, og þá skulud þer eigi eta.

20. Enn þá hina hreinu fuglana skulud þer eta.

21. Þer skulud eigi neitt hræ eta; þeim hinum framanda innann þinna port-dyra máttu þad gefa, ad hann ete þad, ellegar þú sel þad einhverium framande, þviad þú ert eitt heilagt folk Drottins Guds þíns. Þu skallt eigi sióda kided á medann þad sygur sína modur.

22. Hvert ár þá skalltu fráskilia

tíunda partenn af øllu þínu kornsæde, og árs gróda, sem innkemur af þínum akurløndum,

23. Og þú skallt eta þad fyrer Drottni Gude þínum, í þeim stad sem hann útvelur, ad hans nafn skule búa. Tiunder af þínu korne, þínu víne, þínu vidsmiøre, og frumburdena, af þínum nautum og saudfe, ad þú meiger læra ad óttast Drottinn Gud þinn, um alla þína lífdaga.

24. Enn nær ed sá vegurenn er þer oflangur, ad þú getur eigi borsed soddann þangad, þviad sá stadur er so miøg í fiarska vid þig, sem Drottinn Gud þinn hefir útvaled, ad hans nafn skule búa þar (þviad Drottinn Gud þinn hefir blessad þig.)

25. Þá sel þad út fyrer peninga, og tak peninga í þína hønd, og gack til þess stadar sem Drottinn Gud þinn hefir útvaled,

26. Og kaup þar aptur fyrer þá sømu peninga hvad þín sál hefir lysting til, se þad naut eda sauder, vín, áfeingur drickur, eda hvad þad er sem þín sál hefir lyst til, og neyt þess í sama stad, fyrer Drottni Gude þínum, og vert gladur, þú og þitt hús,

27. Enn þann Levita, sem er fyrer innann þinna portdyra, skallt þú eigi yfergefa, þvi hann hefir enga hlutdeilld edur arftøku med þer.

28. Þridia hvert ár skalltu fráskilia alla tíund af þinne inntekt þess sama ársins, og þad skalltu leggia innann þinna portdyra,

29. So skal Levitenn, sem enga arftøku edur hlutdeill hefir med þer, og sá hinn framande og hinn fødurlause, og eckiann, sem er innann þinna stadardyra, koma þangad, og eta sig metta, so ad Drottinn Gud þinn blesse þig í øllum þínum handaverkum, sem þú gerer.

## 15. Capitule.

1. Þú skallt hallda eitt frelsunarár hvert siøunda ár,

2. Og þad skal so tilganga med þvi sama frelsunar árenu: hver sem hefir lánad sínum náunga nockud, þá skal hann gefa hønum þad kvitt, og krefia þess eigi af sínum náunga, edur af sínum brodur, þviad þad kallast frelsunar-ár Drottins.

3. Af einum framanda máttu þad heimta: enn hønum skalltu gefa þad kvitt sem er þinn broder.

4. Þar skal eingenn ølmusu madur vera á medal ydar, þviad Drottinn mun miøg blessa þig í þvi landenu, sem Drottinn Gud þinn gefur þer til arftøku ad eignast.

5. Þó so, ad þú alleinasta hlyder raustenne Drottins Guds þíns, og hallder øll þesse bodord, sem eg byd þer í dag, so ad þú gerer þar epter.

6. Þviad Drottinn Gud þinn mun blessa þig, so sem þad hann hefir sagt til þín: þá muntu og lána mørgu folke, og þú skallt af engum lán taka, þú munt drottna yfer mørgu folke, og eingenn skal drottna yfer þer.

7. Ef nockur af þínum brædrum er fátækur í einhverum stad í þínu lande, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer, þá skalltu eigi forherda þitt hiarta, edur tillykia þína hønd fyrer þínum fátækum brodur,

8. Helldr skalltu upplúka þinne hende fyrer hønum og lána hønum, epter þvi sem hann hefir þørf til.

9. Vara þig vid þvi, ad þar se nockur Belials þanke í þínu hiarta, sem seiger: þar lídur snart ad siøunda árenu, sem ad er frelsunar ár, og þú lítur ómiskunsamlega til þíns fátæka brodurs, og gefir høn=

um eigi þar, þá mun hann kalla yfer þer til Drottins, og það mun verda þer ad synd,

10. Helldur, þá skalltu gefa hønum giarnann, og láta þitt hiarta eigi idrast þess, ad þú gefir hønum, þviad Drottinn Gud þinn mun þar fyrer blessa þig í øllu þvi sem þú áformar.

11. Alla tíma þá munu þar fátæker vera í landenu, þvi byd eg þer og seige: ad þú skuler upplúka þinne hendi fyrer þínum brodur, sem þurftugur og fátækur er í þínu lande.

12. Nær ed þinn broder, einn Ebreskur madur, edur ein Ebresk kvinna selur sig, þá skal hann þióna þer í sex ár, það siøunda áred skalltu gefa hann fríann og lausann.

13. Og nær ed þú gefir hann fríann, þá skalltu eigi láta hann ganga tomhendtann frá þer,

14. Helldur, þá skalltu gefa hønum um af þínu saudfe; af þinne kornhløduz og af þinne vínþrúgu, ad þú gefer af þvi sem Drottinn Gud þinn hefir blessad þig med.

15. Og minnstu á það, ad þú hefir og vered einn þræll í Egyptalande, og ad Drottinn Gud þinn hefir frelsad þig, þar fyrer byd eg þer í dag þetta.

16. Enn seige hann þá til þín, eg vil eigi í burt fara frá þer, þviad mer er vel vid þig, og þitt heimkinne, med þvi hønum gediast þar vel ad hiá þer,

17. Þá tak einn al, sting í gegnum hans eyra upp vid dyrnar, og lát hann vera so þinn æfinlegann þionustu-Mann; á sømu leid skalltu gera vid þína þionustu kvinnu.

18. Og lát það eigi þykia þer forþungt, ad þú gefur hann friálslega lausann, þviad hann hefir þionad þer um sex ár, sem einn tvøfalldur daglaunare, so mun Drottinn Gud þinn blessa þig í øllu þvi þú gerer.

19. Alla þá frumburde sem berast af þínum kúm og saudfe, sem er karlkins, þá skallt þú helga Drottni Gude þínum. Þú skallt eigi eria þinn akur med frumburde þinna nauta, og eigi ullena klippa af frumburde saudfiársins,

20. Helldur skalltu neyta þeirra árlega árs fyrer Drottni Gude þínum, þú og þitt hús, í þeim stad sem Drottinn útvelur,

21. Enn ef það er lyti ad nockru, so ad það er hallt eda blindt, eda hefir nockurn annann ósløst á ser, þá skalltu eigi offra það Drottni Gude þínum,

22. Helldur skalltu eta það innann þinna port-dyra (hvert ed þú ert hreinn edur óhreinn) so sem eitt rádyr, edur einn hiørt,

23. So ad þú eter eigi blóded af þvi, helldur úthell þvi á jørdena, líka sem vatne.

## 16. Capitule.

1. Þú skallt hyggia ad þeim mánadenum Abib, ad þú hallder þá Drottni Gude þínum páska. Þviad á þeim mánade Abib útleidde þig Drottinn Gud þinn af Egyptalande, á náttar tíma.

2. Og þú skallt slátra Drottni Gude þínum páskum, naut og saude, í þeim stad sem Drottinn útvelur, ad hans nafn skule þar búa.

3. Þú skallt ecke syrt eta á þeirre sømu hátíd, helldur skalltu eta ósyrt braud fátæktarinnar, í sio daga, þvíad þú fórst af Egyptalande med hrædslu, ad þú skuler so minnast á þann dag sem þú útfórst af Egyptalande, um alla þína lífdaga.

4. Þar skal ecke syrt siást á þeim sio døgum, innann allra þinna lan-

damerkia. Og þar skal eigi neitt epter skiliast af þvi kiøtenu, sem ad kvøllde þess fyrsta dagsins slátrad er, til morguns.

5. Þú mátt eigi slátra páskum innann nockra þinna stadar-dyra, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer.

6. Helldur í þeim stad sem Drottinn þinn Gud mun útvelia, ad hans nafn skule þar búa, þar skallt þú slátra páskum ad kvøllde dags, þá ed sólenn geingur under, á þeim tíma, þá þú útfórst af Egyptalande.

7. Og þú skallt sióda, og eta þad í þeim stad sem Drottinn Gud mun útvelia, og þar epter ad morgne snúa aptur, og ganga heim til þíns heimilis.

8. Sex daga skalltu eta ósyrt; sá siøunde dagurenn er samkomufundur Drottins Guds þíns, þá skalltu eigi neitt erfida.

9. Siø vikur skalltu reikna, og uppheffia ad telia nær ed teked verdur med sigdenum í korned.

10. Og þú skallt þá hallda Drottni Gudi þínum viku-hátíd, og gef hønum sialfviliugar giafer af þinne hende, epter þvi sem Drottinn Gud þinn hefir blessad þig.

11. Og þú skallt vera gladur fyrer Gude þínum Drottni, þú og þinn sonur, og þín dotter, þinn þionustumadur, þín þionustu kvinna, og Levitinn sem er innann þinna portdyra, sá hinn framande, hinn fødurlause, og eckiann sem ad er hiá þer, í þeim stad sem Drottinn Gud þinn hefir útvaled, þad hans nafn skule þar búa.

12. Og hugleid þú þad, ad þú hefir og vered einn þræll í Egyptalande, ad þú hallder og gerer epter þessum bodordum.

13. Þú skallt hallda laufskála hátíd í siø daga, nær ed þú hefir inn safnad af þinne kornhlødu, og af þinne vínþrugu.

14. Og þú skallt vera gladur á þinne hátíd, þu og þinn sonur, þín dotter, þinn þionustumadur, þín ambátt, Levitinn, sá hinn framande og hinn fødurlause, og eckiann sem er innann þinna stadar dyra.

15. Siø daga skalltu hallda Drottni Gude þínum hátídernar, í þeim stad sem Drottinn mun útvelia. Þviad Drottinn Gud þinn mun blessa þig í allre þinne inntekt, og í øllum þínum handaverkum, þar fyrer skalltu vera gladur.

16. Þrisvar sinnum á árenu skal allt hvad karlkins er hiá þer auglysast fyrer Drottni Gude þínum, í þeim stad sem Drottinn mun útvelia, á þeirre ósyrdra brauda hátídenne, og á þeirre vikuhallds hátídenne, og á þeirre laufskála hátídenne. Enn eingenn skal þar tómhendtur birtast fyrer Drottni,

17. Hver epter giøf sinnar handar, epter þeirre blessan, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer.

18. Domara og valldstiornar Menn skalltu setia þer í øllum þínum borgarhlidum, sem Drottinn Gud þinn mun defa þer, á medal þinna kinkvísla, ad þeir dæme lydenn epter rettferdugum dome.

19. Þú skallt eigi halla rettenum, þú skallt og eigi alíta nockurs manns personu, og eigi helldur giafer þiggia, þviad giafernar forblinda augu vísra Manna, og umvenda málefnum rettferdugra.

20. Þú skallt epterfylgia þvi sem rettferdugt er, so ad þú meiger lifa og eignast þad landed sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer.

21. Þú skallt eigi planta nockurn lund af triám, í hiá alltare Drottins Guds þíns, sem þú gerer þer,

22. Þú skallt eigi uppreisa þer

skolpa, þá ed Drottinn Gud þinn hatar.

## 17. Capitule.

1. Þú skallt eigi fornfæra Drottni Gude þínum neitt þad naut eda saud sem hefir nockur lyte, edur nockurn løst á ser, þviad þad er Drottni Gude þínum ein andstygd.

2. Nær ed þar verdur nockur fundenn, madur edur kvinna, innann þinna stada dyra, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer, sá er illa gerer fyrer Drottins Guds þíns augum, so ad hann yfer-tredur hans sáttmála,

3. Og fer, og þionar annarlegum gudum, og tilbidur þá, se þad solenn eda tungled, edur nockud annat af himensins Her, sem eg hefe eigi boded,

4. Og þetta verdur ságt þer, og þú heyrer þad, þá skalltu vandlega spyria þar ad, og nær ed þú formerker þad, ad þad er vissulega so í sannleika, ad soddann svívirding er sked í Israel.

5. Þá skalltu láta þann Mann edur kvinnu, sem soddann vondsku hefir gert, útleida af þínum portdyrum, og þú skallt beria þau med gríote, til heliar.

6. Epter tveggia edur þriggia Manna vitnisburde þá skál sá deya sem dauda er verdur, eingenn skal þar deya epter eins Manns vitnisburde.

7. Þeirra hønd sem vitnad hafa skal vera hin fyrsta til ad líflláta hann, og sídann høndinn alls folksins, ad þú skiler þig so vid þann vonda.

8. Ef nockurt Þrætumál verdur þer of þungt yfer ad dæma, á millum blóds og blóds, á millum sakferlis, á millum skadsemdar og skadsemdar, og hvada málum sem þad eru, innann þinna stada dyra, þá skalltu hafa þig til vegar, og fara upp til þess stadar sem Drottinn Gud þinn mun útvelia þer,

9. Og koma til prestanna, og Levitanna, og til þess domara sem þann sama tíma verdur, og spyrjast fyrer af þeim, so skulu þeir seigia þer upp dominn.

10. Og þú skalltu gera þad sem þeir seigia þer fyrer í þeim stad sem Drottinn hefir útvaled, og þú skallt gæta, ad þú gerer ølldungis þad sem þeir kenna þer.

11. Epter þvi løgmále sem þeir kenna þer, og epter þeim domenum sem þeir seigia þer upp, þá skalltu hallda, so ad þú víker eigi þar í frá, hverke til hægre ne til vinstre handar.

12. Og ef ad nockur Madur þriótskast so, at hann vill eigi hlyda prestenum ed, sem stendur þar í Drottins Guds þíns embætte, edur domaranum, sá skal deya, og þer skulud í burt taka þann hinn vonda af Israel,

13. So ad almúga folked meige þad heyra, og óttast, og fara eigi framm slíkre ofdirfd leingur.

14. Nær þú kemur inn í þad landed sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer, og eignast þad, og þú byr þar inne, og seiger so: eg vil setia einn kong yfer mig, so sem allar adrar þioder hafa her í kring um mig,

15. Þá skalltu setia þann til kongs yfer þig, sem Drottinn Gud þinn mun útvelia. Enn einn af þínum brædrum skalltu setia til kongs yfer þig, þú kannt eigi setia nockurn framande yfer þig, sem eigi er þinn broder.

16. Ad eins þad, ad hann skal eigi hallda marga hesta, og eigi leida folked í Egyptaland, aptur,

af þvi hann hefir marga hesta, epter þvi sem Drottinn hefir sagt ydur, ad þer skulud eigi hedan í frá ferdast um þennann veg heimleidis aptur.

17. Hann skal og eigi helldur taka ser margar eigenkonur, ad hans hiarta í burt snúest eigi: hann skal og eigi saman draga miked gull og silfur.

18. Nær ed hann kemur nú ad sitia í hásæte síns kongsríkes, þá skal hann taka þetta annad løgmáled af prestunum, og Levitunum, og láta skrifa þad í eina bok.

19. Hún skal vera í hiá hønum, og hann skal lesa þar inne um alla sína lífdaga, so ad hann meige læra ad óttast Drottinn Gud sinn, ad hann kunne ad hallda øll ordinn af þessu løgmále og rettenum, so ad hann gere þar epter.

20. Hann skal eigi ofstæra sitt hiarta yfer sína brædur, og eigi burt víkia af bodordunum, hverke til hægre ne vinstre handar, ad hann meige leingia sína daga í sínu kongs-ríke, hann og hans born í Israel.

## 18. Capitule.

1. Kennemennerner, Levitarner af allre kinkvísl Levi, skulu enga hlutdeilld eda arftøku hafa med Israel, þviad fórner Drottins, og hans arftøku skulu þeir eta.

2. Þar fyrer skulu þeir eigi hafa neina arftøku á medal sinna brædra, þviad Drottinn er þeirra arfleifd, so sem hann hefir sialfur tilsagt þeim.

3. Enn þad skal vera prestanna rettur af folkenu, og af þeim sem offra, hvert þad er uxe eda saudur, ad madur skal gefa prestenum bógenn, báda vangina, og vømbina.

4. Og þann fyrsta gródann af þínu korne, þínu víne og þínu vidsmiøre, og þá fyrstu ullena sem þú tekur af þínu saudfe.

5. Þviad Drottinn Gud þinn hefir útvaled hann af øllum þínum kinkvíslum, ad hann stande framme og þione nafne Drottins, hann og hans syner æfinlega.

6. Nær ed Levitenn kemur út af nockru þínu porte, ellegar út af einhverium stad, í øllum Israel, þar sem hann er framande, og kemur epter allre lysting sinnar sálu, til þess stadar sem Drottinn hefir útvaled,

7. Þá skal hann þiona í nafne Drottins Guds síns, so sem aller hans brædur Levitarner gera, sem þar standa í sama stad fyrer Drottni,

8. Þeir skulu hafa jafna hlutdeilld matarins, fyrer utann þad sem hann hefir af selldu gotse sinna fedra.

9. Nær þú kemur inn í þad landed, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer, þá skalltu eigi læra ad gera þess folks svívirdingar.

10. So ad þar finnest eigi hiá þer sá sem lætur sinn son, edur dottur, í gegnum elld ganga, edur sá nockur sem fer med spádoma, edur er dagveliare, edur sá sem hyggur ad fugla kvake,

11. Edur galldramadur, edur særinga madur, edur nockur Fithons anda forsagnare, eda teikna-útleggiare, eda sá nockur sem leitar fretta af daudum.

12. Þvi hver ed hann gerer soddann, hann er ein svívirding fyrer Drottni, og fyrer slíkrar svívirdingar saker í burt drífur Drottinn Gud þinn þá fyrer þer.

13. Enn þú skallt vera ankannalaus fyrer Drottni Gudi þínum.

14. Þviad þetta folk sem þú skallt

under þig leggia, þad hlyder daga útveliurum, og spásagnarmønum, enn þú skallt eigi so gera fyrer Drottni Gude þínum.

15. Einn spámann mun Drottinn Gud þinn uppvekia þer, út af þer og þinum brædrum, líka sem mig, hønum skulud þer heyra.

16. Eins sem ad þú badst Drottinn Gud þinn í Horeb, á þeim deige, sem ver vorum til samans þar, og þú sagder: eigi vil eg leingur heyra raustena Drottins Guds, Guds míns, og eige optar siá þann mikla elldenn, so ad eg skuli eigi deya,

17. Þá sagde Drottinn til mín, þeir hafa talad vel.

18. Eg vil uppvekia þeim einn spámann af þeirra brædrum, líka sem þú ert, og eg vil leggia mín ord í hans munn, hann skal seigia þeim allt hvad eg byd hønum.

19. Og hver sem eigi heyrer mín ord, sém hann mun tala í mínu nafne, af þeim hinum sama vil eg þess útkrefia.

20. Nær ed einhver prophete dyrfest til ad tala þad nockud í mínu nafne, sem eg hefe eigi boded hønum ad tala, og jafnvel sá sem talar í annarlegra Guda nafne, sa hinn sami prophete skal deya,

21. Ef ad þú seiger þá í þínu hiarta; hvernenn kann eg þeckia þad hvert ord þad Drottinn hefir eigi talad?

22. Nær ed Prophetinn talar í nafne Drottins, og þar verdur eckert af, og þad kemur eigi framm, þad sama er þad orded sem Drottinn hefir eigi talad, enn sá same prophete hefir þad talad út af sinne eigenlegre ofdyrfd, þar fyrer skalltu eigi kvídbug bera fyrer hønum.

## 19. Capitule.

1. Nær ed Drottinn Gud þinn hefir nú í eyde lagt folked, hverra land þad Drottinn Gud þinn mun gefa þer, so ad þú eignest þad, og búer í þeirra borgum og húsum,

2. Þá skalltu frá skilia þriar borger í landenu, þvi sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer ad eignast.

3. Og þú skallt gera þer veg til þeirra, og þú skallt í sundur skipta landamerkium, í þvi landenu, sem Drottinn Gud þinn gefur þer til arftøku, í þria hlute, ad hver sem Mann hefir veged, meige flya þangad,

4. Og þad skal søkenn vera, ad hann sem dreped hefir mann meige flya þangad, so ad hann meige hallda lífenu. Nær ed einhver slær sinn náunga í hel, óforvarande, og hafe hann eigi ádur haft fyrre neitt hatur á hønum,

5. So sem þá, nær ed nockur fer í skóg med sínum náunga, til ad høggva vid, og hann útretter hondena med øxinne til ad høggva tred, og øxenn hrytur af skaptinu, og kemur á hans náunga, so hann deyr þar af, þá skal hann flya til einhvers þessara stada, so hann hallde lífenu,

6. So ad blodhegnarenn veite eigi eptersør mannslagarenum á medann hans hiarta er so heitt og náe hønum, med þvi ad vegurenn er so fiarlægur, og sláe hann so hann deye, þó ad eingenn dauda søk være med hønum, af þvi hann hafde ádur fyrre eigi neitt hatur til hans haft,

7. Þar fyrer byd eg, ad þú í frá skiler þær þriár borger.

8. Og þar sem Drottinn Gud þinn gerer enn vídare þín landamerke, so sem þad hann hefir svared þínum forfedrum, og gefur þer allt

þetta land, sem hann sagde sig vilia gefa þínum forfedrum.

9. (So framt ad þú helldur øll þesse bodord, so ad þú gerer þar epter, sem eg byd þer í dag, þad þú elsker Drottinn Gud þinn, og ganger á hans vegum, alla þína lífdaga). Þá skalltu enn leggia þriár borger til þessara þriggia,

10. So ad eigi verde úthellt saklausu blóde í þínu lande, sem DrottinnGud þinn gefur þer til arfstøku, so ad þú verder eigi sekur í soddann blóde.

11. Enn ef ad nockur hefir heipt á sínum náunga, og yfer-fellur hann, og vinnur á hønum so hann deye, og flyr so í burt til einhvers þessa stadar,

12. Þá skulu ølldungarner hans stadar senda þangad, og láta sækia hann þangad, og selia hann í blódhefnarans hendur, so ad hann se drepinn.

13. Þín augu skulu eigi vægia hønum, og þú skallt burt-taka þad saklausa blód frá Israel, so ad þer meige vel vegna.

14. Þú skallt eigi færa aptur á bak landamerke þíns náunga, sem ad þeir ed fyrer þer voru hafa sett í þinne ættleifd, sem ad þú erfer í því landenu, sem adDrottinnGud þinn hefir gefed þer til eignar.

15. Þar skal eigi eitt vitne alleina framm ganga, ad vitna á móte nockrum, yfer nockurs háttar misgerninge, eda glæp, hvad hellst glæpur sem þad er ad madur kann ad gera, helldur skal hver sok standa í tveggia edur þriggia votta munne.

16. Ef ad eitthvert liugvitne gengur framm ad vitna á móte nockrum, til ad votta uppá hann einhvern misgerning.

17. Þá skulu þeir báder Menn sem kæru-máled, eiga til samans, standa fyrer Drottni, framme fyrer prestunum og domurunum, sem þá eru í þann tíma.

18. Og domararner skulu innvirduglega rannsaka þad sama, hafe hann þá bored falskann vitnisburd, í móte sínum brodur,

19. Þá skulu þeir gera so vid hann, sem hann hafde hugsad ad gera vid sinn brodur, so ad þú í burttaker þann hinn vonda frá þer,

20. Ad þeir hiner adrer sem þad heyra, meige hrædast fyrer því hinu sama, og takast eigi á hendur ad gera soddann illt verk á medal ydar,

21. Þitt auga skal eigi hlífa hønum. Líf fyrer líf, auga fyrer auga, tønn fyrer tønn, hønd fyrer hønd, fót fyrer fót.

## 20. Capitule.

1. Þegar ed þú fer í stríd á móte þínum óvinum, og þú ser, ad þad folk hefir fleyre hesta og vagna enn þú, þá vert þu eigi hræddur fyrer þeim, því ad DrottinnGud þinn, sem útleidde þig af Egyptalande, er med þer,

2. Nær ed þer komed nú þangad sem stríded skal standa, þá skal prestrenn framm ganga, og tala fyrer folkenu og seigia til þeirra,

3. Heyr þú Israel! þer ganged í dag í bardaga mót ydrum óvinum, ydar hiørtu skulu eigi vantreysta, hrædist eigi, og skelfest eigi, og kvídast eigi fyrer þeim,

4. Því ad Drottinn Gud ydar geingur med ydur, so ad hann vill beriast fyrer ydur, móte ydrum óvinum, til ad hiálpa ydur.

5. Enn hershøfdingiarner skulu tala til folksins, og seigia: hver sá madur, sem upp hefir byggt eitt nytt hús, og hefir enn nú eigi vígt þad, sá fare í burt, og blífe í sínu húse, ad hann falle eigi í strídenu,

og þad einn annar skule þá vígia þad.

6. Hver sem ad vlantad hefir einn víngard, og hefir enn eigi gert hann almennelegann, sá gange í burt, og vere heima, ad hann deye eigi í strídenu, og einn annar skule gera hann almennelegann.

7. Hver hann hefir trúlofad sig einnre kvinnu, og hefir enn nú eigi haft hana heim til sín, sá gánge burt, og vere heima, ad hann falle eigi í strídenu, og skule þó annar hafa hana heim.

8. Og hershøfdingiarner skulu enn framar tala til folksins, og seigia: hver hann er hræddur og ragur í sínu hiarta, gange sá í burt og vere heima, ad hann skule eigi hrædslu full gera hiørtu sinna brædra, líka so sem þad hans hiarta er.

9. Og nær ed hershøfdingiarner hafa nu ut talad sínu mále, fyrer folkenu, þá skulu þeir setia hina ædstu yfer herinn fremst fyrer fólked.

10. Nær ed þú fer fyrer nockurn stad, til ad strída á móte hønum, þá skalltu fyrst bíoda þeim frid.

11. Svarar hann þá til vinsamlega, og lætur upp fyrer þer, þá skal þad folk sem þar verdur inne funded, vera þer skattgilldt og undergefed.

12. Enn vile hann eigi høndla fridsamlega vid þig, og vill strída í gegn þer, þá setstu um hann.

13. Og þó Drottinn Gud þinn gefir þer hann í þína hønd, þá skalltu med sverds eggium íhelslá allt hvad þar er karlkins inne.

14. Fyrer utann konur og børn, og kvikfe, og allt þad sem þar er í stadnum, og øllu herfánge skallt þú skipta á medal þín, og þú mátt eta út af bytenu þinna óvina, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer.

15. Líka so skalltu gera vid alla þá stade, sem liggia langt í burt frá þer, og eigi eru af þeim stødum þessa folks.

16. Enn í stødunum þess folksins, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer til arfleifd, skallt þú ecki neitt láta þad lifa sem andardrátt hefir,

17. Helldur skallt þu forenda þeim øllum, einkum sem eru þeir Hethitár, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar, so sem Drottinn Gud þinn hefir boded þer.

18. Uppá þad, ad þeir skulu eigi læra ydur ad gera epter allre þeirra svívirding, sem þeir plaga ad gera til sinna afguda, og ad þer syndgest eigi vid Drottinn Gud ydarn.

19. Nær ed þú hlytur lenge ad liggia fyrer einhverium stad, móte hverum þú strider, so ad þú villt yfervinna hann, þá skallt þu eigi fordiarfa þau alldintre, so ad þú høggver þau nidur med øxinne, þviad þú kannt eta alldine af þeim. Þar fyrer skallt þu eigi uppræta þau, þviad þau eru tre á jørdu, enn eigi Menn, ad þau kunne ad vera so eitt hervirke yfer þer.

20. Enn þau tre sem madur kann eigi ad eta af, þau skalltu fordiarfa og uppræta, og byggia eitt virke þar af, í gegn þeim stadnum sem strider á móte þer, þangad til þú hefir vald yfer hønum.

## 21. Capitule.

1. Nær ed madur finnur nockurn þann, sem ad er íhel slegenn í landenu, þvi sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer ad eignast, og hann liggur á akrenum, og madur veit eigi hver ad hann hefir íhel sleged,.

2. Þá skulu Þíner øllduungar, og Þíner domendur útganga, og mæla frá Þeim sem íhel er sleiginn, og til Þeirra stadanna sem Þar liggia umkring,

3. Hver sá stadur sem Þar liggur nærst, Þá skulu ølldungarner af Þeim stødum taka eina kvígu af hiørdinne, Þá sem eigi hefir vered erfidad med, og sú ed eigi hefir ok dreged,

4. Og Þeir skulu leida kvíguna í einn hrioftugann dal, sem hverke hefir vered plægdur ne sádur, og í Þeim stad, nidur í dalnum, skulud Þer høgga af henne hálsenn.

5. So skulu prestarnær, syner Levi, koma Þar (Þviad Drottinn Gud Þinn hefir útvaled Þá, ad Þeir Þióne hønum, og lofe hans nafn, og um allar saker, og um allann skada skal høndlad verda epter Þeirra munne.)

6. Og aller ølldungarner af Þeim sama stad skulu ganga framm til Þess hins vegna, og Þvo sínar hendur yfer Þeirre kvígunne, sem hálsenn er afhøggenn í dalnum.

7. Og skulu andsvara og seigia: vorar hendur hafa eigi úthellt Þessu blóde, og vor augu hafa eigi helldur sed Þad.

8. Vert Þu nádugur Þínu fólke Israel, hvert ed Þu Drottinn hefir frelsad, og legg eigi Þetta hid saklausa blód uppá Þitt folk Israel,

9. So verda Þeir forlikter yfer Þvi blóde. Þannenn skallt Þu taka Þad saklausa blód í burt frá Þer, so ad Þú gerer Þad sem rettferdugt er fyrer augum Drottins.

10. Nær ed Þú fer út í stríd, móte Þínum óvinum, og Drottinn Gud Þinn gefur Þá í Þínar hendur, so ad Þú burt leider herteknа af Þeim.

11. Og Þú ser á millum Þeirra eina hreinliga kvinnu, og Þú fær lyst til hennar, so ad Þú villt taka hana Þer til eigennkonu.

12. Þá haf hana inn í Þitt hús, og lát raka í burt hennar høfud hár, og skera í burt hennar neglur,

13. Og lát hana færa sig af Þeim klædum sem hún var herkekenn í, og lát hana sitia í Þínu húse og gráta sinn fødur og modur, einn mánud, sídann máttu sofa hiá henne, og taka hana Þer til ekta, og láta hana vera Þína húsfreyu.

14. Enn nær ed Þú hefir engann Þocka til hennar, Þá skallt Þu láta hana í burt fara, Þangad sem hún vill sialf, og selia hana eigi fyrer peninga, ne setia hana út, Þviad Þú hefir leged med henne.

15. Ef ad nockur hefir tvær eigennkonur, eina Þá hann elskar, adra Þá hann hatar, og Þær hafa fædt hønum børn, bæde hún sem hann elskar, og hin sem hann hatar, so ad sá hinn frumgetne sonurenn heyrer Þeirre til sem hann hatar,

16. Og sá tíme kemur, ad hann skal útskipta arfenum á millum sinna barna, Þá kann hann eigi kunna ad gera hennar son sem hann elskar, ad Þeim frumgetna synenum, upp yfer frumgetnum syne Þeirrar sem hann hatar,

17. Helldur skal hann medkenna hennar son, hvera hann hatar, fyrer sinn frumgetna son, og gefa hønum tvøfallt af øllu, Þvi hann er hans fyrstur kraptur, og hønum ber ad hafa Þann frumgetningar rett.

18. Ef ad nockur hefir einn Þrályndann og óhlydenn son, sem eigi vill hlyda síns føδurs og modurs raust, og nær ed Þau aga hann, Þá vill Þann Þó eigi ad helldur vera Þeim hlydugur,

19. Þá skal fader hans og moder taka hann høndum, og leida hann

fyrer ølldungana stadarins, og í ported þess stadar.

20. Og sega til ølldunganna í stadnum: Þesse ockar sonur er þriotskufullur og óhlydenn, og vill eigi hlyda vorri raustu, og er einn svelgur og drickudáre.

21. So sídann skal almúgenn í stadnum gryta hann íhel, og þú skallt so í burt skilia þad vonda frá þer, so ad allur Israel mege þad heyra, og óttast.

22. Nær ed nockur hefir gert einhvera synd, so ad hann er dauda fyrer verdur, og verdur so líflátinn, þad hann er uppheingdur á eitt tre,

23. Þá skal hans líkame eigi vera á trenu um nóttena, helldur skalltu jarda hann sama dag. Þviad sá er bølvadur af Gude sem verdur heingdur. So ad þú saurger eigi þitt land, þad sem Drottinn Gud þinn gefur þer til eignar.

## 22. Capitule.

1. Þegar ed þú ser þíns brodurs uxa eda saud fara villt, þá skalltu eigi skiótast burt þadann, helldur skallt þu leida hann aptur til þíns brodurs.

2. Enn nær ed þinn broder er eigi nærre þer, og þú þecker hann eigi, þá skallt þú taka þad í þitt hús, og hallda þvi so lenge hiá þer, þangad til ad þinn broder kemur og leitar epter þvi, so ad þú kunner þá ad fá honum þad aptur.

3. So skalltu gera vid hans asna, vid hans klædnad, og vid allt þad sem tíndt er, sem þinn broder hann tíner, og finnur þú þad, þú mátt þú eigi hlidra þar hiá.

4. Ef ad þú ser, ad þíns brodurs asne, eda uxe, er dottenn um koll á vegenum, þá skalltu eigi draga þig íhle þar fra, helldur hiálpa honum á fætur.

5. Ein kvinna skal eigi bera karlmans veru, og karlmadur skal eigi færa sig í konu føt, þviad hann sem þad gerer er ein svívirding fyrer Drottni Gude þínum.

6. Nær ed þú finnur eitt fugla hreidur á vegenum, upp í einhveru trenu, edur á jørdunne, med ungum edur eggum, og þad modurenn situr á ungunum, edur eggunum, þá skalltu eigi taka modurena med ungunum,

7. Helldur skalltu láta modurena burt fliúga, og taka ungana, so ad þer meige vel vegna, og lenge lífa.

8. Nær ed þú upp bygger eitt nytt hús, þá ger þer karma þar umkring, uppá þinu þake, so ad þú hlader eigi neinu blóde yfer þitt hús, ef ad nockur fellur þar ófann af.

9. Þú skallt eigi sá þinn víngard med marghláttudu sæde, ad þú eigi helger soddann sæde til einnrar uppfyllingar, sem þú hefir nidur sád ásamt med ávexte víngardsins.

10. Þú skallt eigi eria med einu naute og einum asna til samans.

11. Þú skallt eigi færa þig í þau føt, sem gerd eru af ullu og líne til samans.

12. Þú skallt gera þer bremingar á þeim fiórum saumum þinnar skickiu, sem þú skyler þer med.

13. Nær ed nockur madur sær ser egenkonu, og fær hatur til hennar, sídann hann hefir leged hiá henne,

14. Og leggur henne nockora skømm til, og kemur henne í vondt rikte, og seger: Þessa konu tók eg mer, og þá eg lagde mig hiá henne, þá fann eg ad hún var eigi mey,

15. Þá skal fader og moder þeirrar sømu konu taka hana, og færa hennar meydoms merke inn fyrer ølldungana í stadarportenu.

16. Þá skal fader þeirrar sømu kvinnu segia til ølldunganna: eg gaf þessum manne mína dotter til egenkonu, nú er hann ordenn h n= ne reidur,

17. Og leggur henne eina skemmelega søk til, og seger: eg hefe funded þína dotter eigi mey vera, her eru þessarar minnar dottur meydoms merke. So skulu þau breida klædenn út, fyrer ølldungum stadarins.

18. Þá skulu ølldungarner af stadnum, taka þann mann, og refsa hønum,

19. Og semia af hønum hundrad silfurpeninga, og gefa þá fødur þeirrar sømu kvinnu, fyrer þad hann hefir órikte gert einnre jungfrú í Israel, og hann skal hafa hana til egnarkonu, so ad hann má eigi yfergefa hana um alla sína lífdaga.

20. Enn ern þad sanninde, ad kvinnann fannst eigi ad vera mey,

21. Þá skulu þeir leida hana út fyrer dyrnar hennar fødurs husz, og folked í stadnum skal gryta hana til heliar, af því ad hún gerde soddan heimsku=par í Israel, og drígde hóran í síns fødurs húse, og þú skallt í burt taka soddann vondskap frá þer.

22. Ef ad nockur finnst med því, ad hann liggur hiá þeirre konu sem hefir sinn eignarmann, þá skulu þau bæde deya, madurenn, og konann sem hann hefir hiáleiged, og þú skallt í burt taka þad vonda af Israel.

23. Ef ad ein jungfru er trúlofud nockorum, og einn madur hitter hana í stadnum, og liggur hiá henne,

24. Þá skulu þeir leida þau bæde út fyrer portinn stadarins, og gryta þau bæde í hel, meyuna, af því hún kallade eigi, fyrst ad hún var innann stadar, og mannenn, af því ad hann skammade ecktakvinnu síns náunga, og þu skallt í burt taka þad vonda frá þer.

25. Enn ef nockur hitter eina trúlofada mey út á landenu, og tekur hana med vallde, og liggur hiá henne, þá skal madurenn ad eins deya sem hiá henne lá,

26. Enn meyunne skallt þu ecke gera, því ad hun gerde enga þá synd, sem dauda er verd. Helldur so sem þá einhver setur sig upp í móte sínum náunga, og slær hann í hel, eins líka er og þetta,

27. Því ad hann hitte hana úti á landenu, og su hin trúlofada mey kallade, og þar var eingenn sem hiálpade henne.

28. Nær ed einhver hitter þá meyn sem eigi er trúlofud, og tekur hana, og liggur hiá henne, og þad verdur uppvíst um hann,

29. Þá skal sá sem lá hiá henne gefa fødur hennar simmtín sicłos silfurs, og hafa hana sídann til eigennkonu, því ad hann vanvirdte hana: hann má og eigi yfergefa hana um alla sína lífdaga.

30. Eingenn skal taka síns fødurs húsfreyu, og eigi uppsletta síns fødurs hylmingu.

## 23. Capitule.

1. Þar skal eingenn meiddur madur, edur gelldingur inn koma í Drottins samkundy.

2. Þar skal og eingenn port=konu sonur inn koma í samkundu Drottins, og eigi epter tíunda lid, helldur, þá skal hann alldrei innkoma í samkundu Drottins.

3. Ammonitar og Moabitar skulu eigi innkoma í samkundu Drottins, og eigi í tíunda lid: þeir skulu alldrei koma þar inn,

4. Af þvi ad þeir villdu eigi koma í móte ydur á vegenum, med braude og vatne, þá tíd þer fórud af Egyptalande, og þar ad auk leigdu þeir Bileam son Beors, af Pethor í Mesopotamia á móte ydur, ad hann skyllde bølva þer.

5. Enn Drottinn Gud þinn villde eigi heyra Bileam, og snere þeirre bølvauinne um, til blessunar, af þvi ad Drottinn Gud þinn elskade þig.

6. Þú skallt eigi bidia þeim giæfu, ne nockurs gods, um alla þína lífdaga.

7. Þú skallt eigi hallda Edomitana fyrer neina svívirding, þviad þeir eru þíner brædur. Þú skallt eigi hallda þá Egyptsku fyrer neina svívirding, þviad þú hefir vered útlendingur í þeirra lande.

8. Þau børn sem þeir geta í þridu ættkvísl, skulu innkoma í samkundu Drottins.

9. Nær ed þú gengur út af herbúdunum, í móte þínum óvinum, þá skallt þu vara þig vid øllu þvi sem íllt er.

10. Er þar sá nockur á medal ydar, sem eigi er hreinn, fyrer þad sem hann kann ad hafa hendt um nottena, hann skal ganga burt fyrer utann herbúdernar,

11. Og eigi inn aptur koma, fyrr enn ad kvølldе, nær ed hann hefir þveiged sig í vatne, og nær ed solenn er under geingenn, þá skal hann inn ganga í herbúdernar aptur.

12. Þú skallt og hafa eitt plats fyrer utann herbúdernar, þangad sem þú kannt ad fara, og gera þínar naudþsyniar.

13. Og þú skallt hafa einn líteun spada, og nær ed þú villt setia þig nidur þar úte, þá skallt þu grafa þar med, og þá þu hefir gert þínar naudsyniar, þá skalltu moka yfer þad sem frá þer er geinged.

14. Þviad Drottinn Gud þinn gengur á millum þinna herbúda, til ad frelsa þig, og gefa þína óvine fyrer þer, þar fyrer skulu þínar herbúder vera heilagar, og þar skal eigi neitt skammarlegt siást á medal þín, ad hann skule eigi snúa ser í burt frá þer.

15. Þú skallt eigi selia þann þræl í síns Herra hendur, sem flúed hefir frá hønum til þín.

16. Hann skal vera hiá þer í þeim stad, út í einum þinna portdyra, sem hann útvelur ser til góda, og þú skallt eigi høndla ílla vid hann.

17. Þar skal eingenn skækia vera á mille Israels dætra, og eingenn skammadur madur á mille Israels sona.

18. Þú skallt eigi bera neina skæku-tilgiøf, eda hunda-verd, í þad hús Drottins Guds þíns, út í nockurs konar heitgiøfum, þvi þad hvertveggia er Drottni Gude þínum ein svívirding.

19. Þú skallt eigi fremia okur á þínum brodur, hverke med peningum, ne med mat, ne med neinum þeim hlutum sem út má okra.

20. Þann framanda máttu okra, enn eigi þinn brodur, so ad Drottinn Gud þinn skule blessa þig, í øllu þvi sem þú tekur þer fyrer hendur, í þvi landenu, sem þú skallt inn koma til ad eignast.

21. Nær þú heiter nockru Drottni Gude þínum, þá skalltu eigi gera dvøl á þvi ad enda þad, þviad Drottinn Gud þinn vill kresia þess af þer, og þad sama verdur þer ad synd.

22. Enn heiter þú engo, þá er þer þad eingenn synd.

23. Enn hvad sem frammgenged er af þínum vørum, þad skallt þú enda, og gera, líka sem þú hefir med

Þínum munne heiteð Drottni Gude Þínum, út af Þínum sialfs eigenlegum vilia.

24. Nær ed Þú gengur í víngard Þíns náunga, Þá máttu eta so mørg vínber sem Þig lyster, til Þess Þú ert mettur, enn í Þitt ker skalltu eigi neitt leggia.

25. Nær ed Þú geingur um korn akur Þíns náunga, Þá máttu plocka axenn med hendenne, enn med sigdinum skalltu eigi neitt skera Þar upp.

## 24 Capitule.

1. Ef ad einhver fær ser konu, og gerer egennord vid hana, og hun finnur eigi sídann náð fyrer hans augum fyrer einhvers óÞocka saker, Þá skal hann skrifa eitt skilnadar bref, og fá Þad í hennar hønd, og láta burt fara af sínu heimele.

2. Nær ed hún er so úrdrifenn af hans húse, og gengur í burt, og verdur eins annars manns egenn kona,

3. Og sá hinn annar madurenn fær og einenn styggd til hennar, og skrifar eitt skilnadarbref, og fær Þad í hennar hønd, og lætur hana í burt fara af sínu heimele, ellegar so, ef ad sá hinn annar madurenn deyr, sem hana tók ser seinna til eigennkvinnu.

4. Þá má eigi hennar fá hinn fyrste madur, sem hana let í burtu fara frá ser, eda taka hana aptur til eigennkonu, sídann ad hún er ordenn óhrein, Þviad slikt er anstyggd fyrer Drottni, so ad Þú skulex eigi gera Þad land syndugt, sem Drottinn Gud Þinn gefur Þer til eignar.

5. Nær ed nockur hefir teked nú nylega ser egennkonu, sá skal eigi út fara í stríd, og eingenn Þyngsl skulu hønum áleggiast. Helldur skal hann vera frí í sínu heimele, eitt ár um kríng, og vera gladur med sinne egennkonu, sem hann hefir teked ser.

6. Þú skallt eigi taka í pant Þá underkvernena ne yferkvernena, Þviad hann setur Þer Þá sálena til panta.

7. Ef ad sá finnst nockur, sem í burt stelur einnre sálu frá sínum brædrum, Israels børnum, og setur hana út, edur selur hana, Þá skal sá sami Þiofur deya, ad Þú so burt taker hid vonda frá Þer.

8. Vara Þig vid spitelskri plágu, ad Þú hallder og gerer med athygle allt Þad sem prestarner Levitarner kenna Þer, Þad skulud Þer hallda og gera sem Þeir bióda ydur.

9. Hugleid Þú hvad Drottinn Gud Þinn gerde vid Mariam á veigenum, Þá ed Þer fórud af Egyptalande.

10. Nær ed Þú lánar Þínum náunga nockud, Þá skalltu eigi fara inn í hans hús, til ad taka panta af hønum.

11. Helldur skallt Þu standa Þar úte fyrer, og hann sem Þú hefir lánad nockud, skal bera sinn pant út til Þín.

12. Enn ef hann er Þurfande, Þá skallt Þu eigi leggia Þig til svefns med hans panti,

13. Helldur skallt Þú fá hønum sinn pant aptur, nær ed solenn gengur under, so ad hann mege sofa í sínum klædum, og blessa Þig, og Þad mun Þer fyrer Drottni Gudi Þínum verda rettlæte.

14. Þú skallt eigi hallda inne hans launum hiá Þer, sem er naudÞurftugur, og fátækur, hvert hann er af Þínum brædrum, edur Þeim útlendingunum, sem ad eru í landenu hiá Þer, innann Þinna portdyra.

15. Helldur skallt Þú giallda hønu-

um sitt verkkaup á deiginum, fyrr enn sólenn gengur under, þvíad hann er fátækur, og skal þar med uppehellde veita sinne sálu, so ad hann kalle eigi til Drottins á móte þer, og þad se þer reiknad fyrer synd.

16. Fedurner skulu eigi deya fyrer barnanna saker, og børnenn eigi fyrer fedurnar, helldur skal hver deya fyrer sína misgerd.

17. Þú skallt eigi halla rettenum hins framanda og hins fødurlausa, og þú skallt eigi taka klædnad eckiunnar í pant.

18. Þvi þer skal til hugar koma, ad þú varst einn þræll á Egyptalande, og Drottinn Gud þinn frelsade þig þar í frá, hvar fyrer ad eg byd þer, ad þú skuler so gera.

19. Nær ed þú hefir haustyrkiad þinn akur, og hefir forgleymt einu bindene á akrenum, þá skallt þú eigi snúa þer aptur til ad sækia þad, helldur lát hinn framanda, og hinn fødurlausa, og eckiuna eiga þad, so þad Drottinn Gud þinn blesse þig í øllum verkum þinna handa.

20. Nær ed þú hefir hrist þitt vidsmiørsvidar tre, þá skallt þú eigi hrista þad aptur, helldur skulu þeir framandi og fødurlausu og eckiur eignast þad.

21. Nær ed þú hefir plockad þinn víngard, þá skallt þú eigi plocka hann aptur, þad skal heyra til þeim framandu, fødurlausu, og eckiunum.

22. Og þer skal til hugar koma, ad þú varst einn þræll í Egyptalande, þvi byd eg þer, ad þú gerer þetta.

## 25. Capitule.

1. Nær ed þar er nockur þræta nockra manna á millum, þá skulu menn hafa þá fyrer dom, ad þar dæmest á millum þeirra, og láta þann hinn rettferduga ske rett, og dæma þann ógudlega sekann.

2. Og ef sá hinn rangláte hefir forþent slög, þá skal domarenn skipa hønum ad leggiast nidur, og láta slá hann fyrer ser, epter þvi sem hans misgerd er stór til.

3. Nær ed madur hefir gefed hønum fiørutíu høgg, þá skal eigi slá hann meira, so ad hann verde eigi ofmiøg slegenn, ef ad hønum verda fleyre høgg gefenn, og ad þinn broder líde minkun fyrer þínum augum.

4. Þú skallt eigi múlbinda þad nauted, sem korned þresker.

5. Hvar sem brædur búa hver hiá ødrum, og einn af þeim deyr barnlaus, þá skal húsfreyann þess hins framlidna engann framande mann taka þar utann ad, helldur skal hennar egenn mágur liggia hiá henne, og taka hana ser til húsfreyu, og eiga hana.

6. Og þann fyrsta son, sem hún fæder, skal hann stadfesta epter síns frammlidins broðurs nafne, so ad hans nafn skule eigi útslettast af Israel.

7. Enn ef sá sami madur vill eigi taka sína brodur kvinnu, til húsfreyu, þá skal hún, hans brodurkona, ganga upp til portdyranna fyrer ølldungana, og seigia: minn mágur hann vill eigi uppvekia sínum brodur eitt nafn í Israel, og vill eige eiga mig.

8. Þá skulu ølldungarner af stadnum kalla hann framm og tala til hans. Nær ed hann þá stendur (á þvi) og seger, eg vil egi ægta hana,

9. Þá skal hans mágkona ganga ad hønum, fyrer ølldungunum, og taka annann skóenn af hans fótum og hrækia á hann, og skal svara og segia: svo skal madur gera vid ser-

hvern þann, sem eigi vill uppbyggia síns broðurs hús.

10. Og hans nafn í Israel skal kallast hús hins berfætta.

11. Nær ed tveir Menn deila sín á raillum, og hins annars egenkona hleypur ad, og vill hiálpa Manne sínum, af hans høndum sem slær hann, og hún útretter þá sína hønd, og grípur um hans leyndar lim,

12. Þá skalltu høgga af hennar hønd, og þitt auga skal eigi væga henne.

13. Þú skallt eigi hafa í þínum seck tveggia handa voger, adra stora enn adra litla.

14. Þu skallt eigi helldur hafa í þínu húse tvenna mæleaska, einn stórann, og annann litenn.

15. Þú skallt hafa eina fulla og retta vog, og einn fullann og rettferdugann mæleask, so þú meiger leinge lífa í þvi lande, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer.

16. Þviad hver sem gerer þetta, hann er ein svívirding fyrer Drottni Gudi þínum, so sem ad aller eru þeir ed illa gera.

17. Minnstu á þad, hvad Amalechitar gerdu þer á vegenum, þá er þer ferdudust út af Egyptalande,

18. Hvernenn ad þeir redu á þig á vegenum, og slóu þá sem aptast gengu, alla þá sem veiker voru, og epter þer fóru, þá þú varst bæde móður og vanmegna, og þeir hrædduſt eigi Gud,

19. Nær ed Drottinn Gud þinn gefur þer hvíld, fyrer øllum óvinum þínum kring um þig, í landenu sem Drottinn Gud þinn gefir þer ad inn taka til erfda, þá skallt þú med øllu afmá minning þeirra Amalechita under himnenum. Gleym þvi eigi.

## 26. Capitule.

1. Nær ed þú innkemur í þad land sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer til ad erfa, og þú setst þar ad, og byr þar inne,

2. Þá skallt þú taka þann allskins fyrsta ávøxt í landenu, sá ed kemur af þeirre jørdunne, sem Drottinn Gud þinn gefir þer, og þu skallt leggia þad í eina kørf, og ganga burt til þess stadar, sem Drottinn Gud þinn mun útvelia, ad hans nafn búe þar.

3. Og þú skallt koma til þess kennemannsins, sem þá er þann tíma, og seig til hans: eg medkenne í dag fyrer Drottni Gude þínum, ad eg em komenn í þad land, sem Drottinn sór fedrum vorum ad gefa oss.

4. Og presturenn skal taka kørfena af þinne hende, og setia hana nidur fyrer alltare Drottins Guds þíns.

5. Þá skallt þú svara, og seigia, fyrer Drottni þínum Gude: hiner Syrlendsku villdu fyrerfara fødur mínum, þá hann fór ofann í Egyptaland, og var þar einn útlendingur, med fátt eitt folk, og hann vard þar ad stóru, sterku, og fiølmennu fólke.

6. Enn hiner Egyptsku breittu ílla vid oss, og þvingudu oss, og løgdu einn hardann þrældom á oss.

7. Þá kølludum ver til Drottins Guds fedra vorra, og Drottinn heyrde vort hróp, og sá vora útlegd, angist og ánaud.

8. Og útleidde oss af Egyptalande, med volldugre hendi og útrettum armlegg, og med stórum skelfingum, fyrer tákn og furduverk,

9. Og leidde oss hingad til þessa stadar, og hefir gefed oss þetta land, hvar miolk og hunáng flytur inne.

10. Nú ber eg hingad þann fyrsta ávøxt landsins, sem þú Drottinn

hefir gefed mer. Og þú skallt láta þad vera fyrer Drottni Gude þínum, og tilbidia þar Drottinn Gud þinn,

11. Og gera þig gladann yfer ellu þvi gódu, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer, og þínu heimkinne, þú og Leviteun, og sá hinn framande sem hiá þer er.

12. Nær ed þú hefir safnad øllum tíundum tilsamans af allre þinne inntekt, á þvi þridia árenu, þad er eitt tíunda ár, þá skallt þú gefa Levitanum, þeim fremundu, þeim fødurlausu, og eckiunum, ad þeir ete innann þinna portdyra, og verde metter.

13. Svo skallt þu segia fyrer Drottni G... e þínum: eg hefe bored af mínu húse, þad sem helgad er, og hefe gefed Levitanum, útlendingum, þeim fødurlausa, og eckiunum, epter øllum þ num bodordum sem þú hefir bodid mer, eg hefe eigi yfer troded edur forgleymt þínum bodordum.

14. Eg hefe þar einskis af neytt í minne sorg, og þar ejgi neitt afteked í mínum óhreinleika. Eg hefe eigi neitt gefid til þeirra daudu þar af. Eg hefe vered raustenne Drottins Guds míns hlydugur, og hefe gert þad allt sem þú hefir bodid mer,

15. Lít þu ófann hingad af þínum heilaga bústad af himnum, og blessa þú Israel þitt folk, og þad landed sem þú hefir gefed oss, so sem ad þú hefir svared vorum forfedrum, eitt land sem miolk og huníng inneflytur.

16. Drottinn Gud þinn bydur þer í dag, ad þu skuler gera epter øllum þessum bodordum og rettindum, so ad þú vardveiter þau, og gerer þar epter af øllu hiarta, og af allre þinne gekvallre sálu.

17. Þú hefir talad í dag fyrer Drottne, ad hánn skule vera þinn Gud, ad þú viler ganga í øllum hans vegum, og hallda hans løgmál, bodord og retlinde, og hlyda hans raust.

18. Og Drottinn hefir tilsagt þer í dag, ad þú skuler vera hans eged folk, so sem þad hann hefir sagt þer, ad þu skuler hallda øll hans bodord.

19. Og hann skuli upphesia þig, og ad þú skuler hróþast, prísast, og heidrast yfer øllu fólke, sem hann hefir gert, ad þú sert eitt heilagt folk Drottni Gude þínum, so sem þad hann hefir sagt.

## 27. Capitule.

1. Moses, ásamt med elldungunum af Israel, baud folkenu og sagde: halded øll þesse bodord sem eg byd ydur í dag.

2. Og á þeim tíma nær ed þer gangeð yfer um Jordan, í þad landed sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer, þá skallt þú reisa upp stóra steina, og bræda þá utann med kalke,

3. Og skrifa uppá þá øll þessa løgmáls ord, nær ed þu kemur þar yfer um, so ad þú innkomer í þad landed, sem Drottinn Gud þinn mun gefa þer, eitt land þar miolk og huníng flytur í, so sem Drottinn Gud fedra þinna hefir sagt þer.

4. Nær ed þer gangeð nú yfer um Jordan, þá skulud þer reisa upp þá sømu steina á fiallenu Ebal (so sem eg byd ydur í dag) og bræda þá med kalke.

5. Og þú skallt uppbyggia þar Drottni Gude þínum eitt alltare af steinum, þar sem eigi neitt iárn kemur yfer.

6. Þú skallt byggia þad sama Drottins þíns alltare af heilum

steinum, og offra Drottni Gude þínum brenneoffur þar uppá.

7. Þú skallt og offra þackargerdar offre, og neyta þar, og gera þig gladann fyrer Drottni Gude þínum.

8. Og þú skallt skrifa øll ordiun þessa løgmáls, klárliga og skírlega á þá sømu steina.

9. Og Moses og prestarner, og Levitarner toludu vid allann Israel, og søgdu: hygg ad og heyr þú til Israel; þú ert ordenn í dag Drottins Guds þíns folk,

10. Ad þú skuler hlyda Drottins Guds þíns raust, og gera epter hans bodordum, og rettindum, sem eg byd þer í dag.

11. Og Moses baud folkenu þann sama dag, og sagde:

12. Þesser skulu standa uppá fiallenu Grisim til ad blessa folked, nær ed þer erud komner yfer um Jordan, Simeon, Levi, Juda, Isaschar, Joseph, og Benjamin,

13. Og þesser skulu standa upp á fiallenu Ebal, til ad bølva, Ruben, Gad, Asser, Zebulon, Dan, og Naphthali.

14. Og Levitarner skulu uppbyria og seigia til hvers Manns af Israel med hárre raustu.

15. Bølvadur verde sá, sem gerer eitt skúrgod, ellegar eina steypta Ilknesskiu, hver ad er ein svívirding fyrer Drottne, eins hags Manns handverk, og setur hana í leyne, og allt folked skal svara og seigia: ámen.

16. Bølvadur veri sá sem blótar fødur sínum edur modur, og allt folked skal seigia: ámen.

17. Bølvadur vere sá, sem saman færer landamerke síns náunga, og allt folked skal seigia: ámen.

18. Bølvadur vere sá, sem gerer hinn blinda villtann á veigenum, og allt folked skal seigia: ámen.

19. Bølvadur se sá, sem hallar rette hins framanda, hins føðurlausa, og ekkiunnar, og allt folked skal segia: ámen.

20. Bølvadur verde sá, sem liggur í hiá síns føðurs húsfreyu, ad hann upplypter so síns føðurs falde, og allt folked seige: ámen.

21. Bølvadur veri sá, sem liggur hiá nockurs konar fenade, og allt folked skal segia: ámen.

22. Bølvadur vere sá, sem liggur med syster sinne, sem ad er dotter hans føðurs, edur hans modur, og allt folked skal segia: ámen.

23. Bølvadur vere sá, sem liggur hiá modur húsfreyu sinnar, og allt folked skal segia: ámen.

24. Bølvadur vere sá, sem slær sinn náunga leynelega, og allt folked skal segia: ámen.

25. Bølvadur vere sá, sem tekur giafer til þess, ad slá sálena hins saklausa blodsins, og allt folked skal segia, ámen.

26. Bølvadur vere sá, sem eigi fullkomnar øll ordenn í þessu løgmále, so ad hann gere þar epter, og allt folked skal segia: ámen.

## 28. Capitule.

1. Og ef ad þú ert Drottins Guds þíns raust hlydugur, so ad þú helldur og gerer anll hans bodord, sem eg byd þer í dag, þá mun Drottinn Gud þinn gera þig þad ædsta yfer øllum þiodum á jørdunne,

2. Og allar þessar blessaner munu þá yfer þig koma, og hitta þig, af þvi ad þu hefir verid Drottins Guds þíns raust hlydugur.

3. Blessadur muntu vera í borgenne, blessadur á akrenum,

4. Blessadur mun vera ávøxturenn þíns kvidar, þinnar jardar ávøxtur, og þíns fenadar ávøxtur, þinna nauta ávøxtur, og þinna sauda ávøxtur,

5. Blessud mun verda þín kørf, og þínar afgangs leyfar,

6. Blessadur muntu vera í þínum inngauge, og blessadur muntu vera í þínum útgange.

7. Og Drottinn hann man nidur slá þína óvine fyrer þer, sem setia sig upp í móte þer; um einn veg skulu þeir draga út á móte þer, enn um siø vegana skulu þeir flya fyrer þer,

8. Drottinn hann mun bióda blessanenne, ad hún skule vera hiá þer í þínu matar húse, og í øllu þvi sem þú áſetur þer, og hann mun blessa þig í þvi landenu, sem Drottinn Gud hefir gefed þer.

9. Drottinn mun uppteisa þig, ser til eins heilags folks, so sem þad hann hefir svared þer, af þvi, þú helldur Drottins Guds þíns bodord, og gengur á hans vegum.

10. So ad allt folked á jørdu skal siá, ad þú ert nefndur epter Drottins nafne, og þeir skulu óttaslegner vera fyrer þer,

11. Og Drottinn hann mun gefa þer yfergnæfanlega nógleg audæfe, bæde af þínum sialfs lífs ávexte, og af ávexte þíns fenadar, og af ávexte þíns akurs, á þvi landenu sem Drottinn Gud þinn sór þínum forfedrum ad gefa þer.

12. Og Drottinn mun upplúka sínum góda fesiód, himnenum, til ad gefa þínu lande regn, á sínum tíma, og blessa øll þín handaverk. Og þú skallt lána mørgu fólke, og af engum skallt þu lán taka.

13. Og Drottinn mun gera þig ad høfdenu, og eigi ad halanum, og þú skallt alltíd yfer vera, og eigi under liggia. Ef ad þú ert Drottins Guds þíns bodordum hlydugur, sem eg byd þer í dag, ad hallda og gera þau.

14. Og ef þú víkur eigi í frá neinum þessum ordum, sem eg byd þer í dag, hverke til hægre ne vinstre handar, þú ganger eigi epter annarlegum Gudum, til ad þiona þeim.

15. Enn ef þú hlyder eigi raustenne Drottins Guds þíns, ad hallda og gera epter hans bodordum og rettindum, sem eg byd þer í dag, þá skulu allar þessar bølvaner koma yfer þig og hitta þig.

16. Bølvadur skallt þú í borgenne vera, bølvadur á akrenum.

17. Bølvud skal þín kørf vera, og hvad þer afgangs er.

18. Bølvadur skal þinn líffins ávøxtur vera, þinn jardar ávøxtur, þinna nauta ávøxtur, og þinna sauda ávøxtur.

19. Bølvadur skallt þu vera nær þú gengur inn: bølvadur nær þú gengur út.

20. Drottinn mun senda þín á medal slis, órád, og ógæfu, í øllu þvi sem þú tekur þer fyrer hendur ad gera, þangad til þú verder eydelagdur, og ad þú fyrerfarest snarlega, fyrer þinna illgerda saker, þad þú hefir yfergefed mig.

21. Drottinn mun láta dreysott yfer þig koma, þangad til ad hann foreyder þer í þvi landenu, sem þú fer til ad eignast.

22. Drottinn mun slá þig med bólgu, køldusott, hita, bruna, þurk, og banvænlegu vedre og gulusott, og hann mun ófsækia þig, þangad till hann fyrerkemur þer.

23. Þinn himen, sem upp yfer þínu høfde er, skal vera sem kopar, og jørdenn under þer sem iárn.

24. Drottinn mun gefa þínu lande rik og øsku, fyrer regn af himne, uppá þig, þangad til ad þú verdur eydelagdur.

25. Drottinn mun slá þig fyrer þínum óvinum; um einn vegenn skallt þú út fara í móte þeim, enn um

siø vegu skalltu flya fyrer þeim, og þu skallt burt dreifast um øll ríkenn á jørdu.

26. Þinn líkame skal verda øllum fuglum under himnenum, og øllum dyrum á jørdunne, til fædis, og þar skal eingenn sá vera sem þau í burt rekur.

27. Drottinn mun slá þig med Egyptskum kylum, med bakhlutsins sárindum, med vose og kláda, so þu kunner eigi ad lætnast,

28. Drottinn mun slá þig med rádleysu, blindleika, og hiartans sinnuleyse,

29. Og þú skallt fálma um midðeiged, so sem blindur madur fálmar í myrkre, og þu skallt enga gæfu hafa á þínum vegum. Þu skallt hlióta ad lída ófríke og órett, alla þína lífdaga, og eingenn skal þer hiálpa.

30. Þú munt trúlofast einne kvinnu, og einn annar mun sofa hiá henne. Þú munt uppbyggia eitt hús, enn þú skallt eigi búa þar inne. Þú munt planta einn víngard, enn þú skallt eigi gera hann almennelegann.

31. Þínum uxa skal verda slátrad fyrer augum þer, enn þu munt ecke eta þar af. Þinn asne skal í burt tekenn vera frá þer med ófríke, fyrer þinne ásion, og skal eigi gefast þer aptur: þíner sauder skulu gefast þínum óvinum, og eingenn skal þer til hiálpar koma.

32. Þíner syner og dætur skulu gefast annarlegu fólke, og þín augu skulu siá þar uppá, og daglega yfer þeim døpur verda. Og þar skal eingenn styrkleike vera í þínum høndum,

33. Þíns lands ávøxt, og allt þitt erfide skal þad folk upp eta, sem þu þecker eigi, og þu skallt lída ránginde, og verda undertródenn alla þína lífdaga.

34. Og þú skallt vera sinnulaus út af þvi sem þín augu hlióta ad siá.

35. Drottinn mun slá þig med illum graptar sárum á knen og fotleggina, so ad þú munt eigi grædður verda frá ylium, og allt upp á hvirfil.

36. Drottinn mun útdrífa þig og þinn konung, sem þú hefir sett yfer þig, í burt til þess folks sem hverke þú ne þíner forfedur hafa þeckt, og þar muntu þiona annarlegum Gudum, stockum og steinum,

37. Og þú munt verda ad undran, og ad einu almennelegu ordtake, og hádungu á medal alls þess folksins, sem Drottinn í burtdrífur þig til.

38. Miked kornsæde skallt þú útsæra á akurlendinn, enn litlu skalltu inn aptur safna, þvi eingesprettur skulu eta þad,

39. Þu skallt planta víngard, og yrkia hann, enn þú skallt eigi dreckа, eda samansafna vínenu þar út af, þvi madkar skulu foreyda þvi.

40. Þú skallt hafa vidsmiørsvidartre innann allra þinna landamerkia, enn þu skallt þó eigi smyria þig med vidsmiøre, þviad þín oleu tre skulu upprætast.

41. Þú munt geta syne og dætur, enn eigi bihallda þeim, þviad þau skulu herteкenn og í burt flutt verda,

42. Øll þín alldin-tre og ávørt landsins skulu illsku-madkar upp eta.

43. Hinn útlendske, sem er hiá þer, skal ganga upp yfer þig, og ætíd vera enn þú, enn þú skallt nidurstíga, og ætíd underliggia.

44. Hann mun lána þer, enn þú munt eigi hønum lána, hann mun høfuded vera, enn þú haleнn.

45. Og allar þessar bølvaner skulu koma yfer þig og ofsækia þig, og

hitta þig, þangad til ad þú verdur afmádur, af því ad þú hlydder eigi raustenne Drottins Guds þíns, ad þú hallder hans bodord og rettinde, sem hann hefir boded þer.

46. Þar fyrer skulu teikn og fádæme vera á þer og þínu sæde ævinnlega,

47. Af því ad þú þionader eigi Drottni Gude þínum, med glede og unadsemd þíns hiarta, þá ed þu hafder allskins gnægder,

48. Og þú munt þiona þínum óvinum, þeim sem Drottinn mun tilskicka þer, med hungre og þorsta, fatleyse, og allskins þørfnun, og hann skal leggia járnok á þinn háls, þangad til hann afmáer þig.

49. Drottinn mun leida eitt folk yfer þig fir fiarlægd frá veralldarennar enda, sem ein ørn fliúge, hverra tungumál þú skilur eigi,

50. Eitt grimmlegt folk, þad sem eigi skeyter manngrein hins alldrada, og eigi væger þeim ungu,

51. Og þad skal foreyda ávextenum þíns fenadar, og þíns lands ávexte, þangad til þu eydelagdur verdur, og þad mun eigi láta þer neitt epter verda, hverke af korne, edur víne, edur vidsmiøre, eige helldur af ávexte nauta edur sauda, þangad til þad í eydeleggur þig.

52. Og þeir skulu þer angist gera í øllum þínum portdyrum, þangad til ad þeir nidurbrióta þína háfa og rammbyggda múrvegge, sem þú treyster uppá, í øllu þínu lande, og ad þer skal þreyngt verda innann allra þinna borgarhlida, í øllu þínu lande, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer.

53. Þú munt eta þinn lífsins ávøxt, kiøted af þínum sonum og dætrum, sem Drottinn Gud þinn hefir gefed þer, í þeirre angist og ánaud, sem þíner óviner skulu þvinga þig med.

54. So ad sá madur sem ádur hefir lifad í miklu sællífe, og kræsingum, skal eigi vilia unna sínum brodur og sinne húsfreyu sem í hans fadme liggur, og þeim sínum syne, sem enn er epter af hans sonum,

55. Ad hann gefe nockrum af þeim, af síns sonar kiøte ad eta, af því ad hønum hefir eigi neitt epterláted vered af øllu sínu gotse, í þeirre angist og ánaud sem þinn óvinur skal þreyngia þer med, innann allra þinna stadar-porta.

56. Sú kvinna á medal ydar sem ádur hefir vered sællíf, og lifad miøg kræselega hiá ydur, so hún hefir eigi reynt ad stíga sínum fæte á jørdu, fyrer sællífesins og vellystingarennar saker, hún skal eigi vilia unna sínum bonda, sem á hennar arme liggur, og sínum syne, og sinne dotter,

57. Þeirrar barnfylgiunnar, sem út er gengenn af hennar eigenlegum kvide, og eigi helldur því barnenu sem hun fædde, þviad hún mun heimuglega eta þad sama, fyrer allskins þørfnunar saker, í þeirre angist og naud sem þíner óviner skulu þvinga þig med, innann þinna portdyra.

58. Utann so se, ad þú hallder og gerer epter øllum þeim ordum í þessu løgmále, sem skrifud eru í þessare bok, so ad þú óttest þad hid dírdarsamlega og hid hrædelega nafned Drottins Guds þíns.

59. Þá mun Drottinn furdulega breita vid þig, med plágum yfer þig og þitt sæde, med stórum og langgædum plágum, med vondum og langsamlegum krankdæmum.

60. Og hann mun snúa til þín øllum þeim Ægyptskum siukdóme, fyrer hverum ad þú kvíder, og hann mun þer vidloðande verda,

61. Og þar til øll krankdæme og allar plágur, sem eigi eru skrifud í þessari løgmáls bok, þá mun Drottinn láta koma yfer þig, þangad til ad þú foreydest.

62. Og þar skal eigi vera margt folk epter af ydur, þer sem ádur hafed vered so marger sem stiørnur á himne, af þvi, ad þú hlydder eigi raustenne Drottins Guds þíns.

63. Og líka sem þad, ad Drottinn gladde sig ádur yfer ydur, ad gera ydur til góda, og fiølga ydur, eins líka mun hann þá og gledia sig yfer ydur, ad hann kunne ad fordiarfa og í eydeleggia ydur,

64. Og þer munud útrekner verda af þvi landenu, sem nú fer þú til ad eignast. Drottinn mun í burtdreifa þer á medal alls folks, í frá einum enda veralldarennar til hins annars, og þar muntu þiona annarlegum Gudum, sem hverke þú ne þíner fedur hafa þeckt, stockum og steinum.

65. Þar skalltu eigi neitt fast adsetur hafa á medal þess sama folks. Og þíner fætur skulu þar enga hvíld hafa. Þvi að Drottinn mun gefa þer í þeim sama stad eitt skiálfanda hiarta, og døpur augu, og eina vanmegna sálu,

66. So ad þitt líf skal hanga fyrer þer. Þú skallt ottablandenn vera bæde nótt og dag, og eigi hræddur vera um þitt líf.

67. A morgna muntu segia: æ, mætta eg nú lifa til kvollds. Enn á kvølldum muntu seigia, æ, mætta eg lifa til morguns, út af hrædslu þíns hiarta, sem þig mun skelfa, og út af þvi hinu sama, sem þú hlytur ad siá med þínum augum.

68. Og Drottinn mun á skipum innflytia þig aptur í Egyptaland, um þann vegenn sem eg hefe sagt þer af, þú skallt eigi framar meir hann siá. Og þar skulud þer sellder verda ydrum óvinum, til þræla og ambátta, og þar mun eigi nockur sá vera sem ydur vile kaupa.

## 29. Capitule.

1. Þesse eru þau sáttmáls ord, sem Drottinn baud Mose, ad gera vid Israels børn, í Moabita lande, í annad sinn, epter þad hann gerde þann hinn sama vid þá í Horeb.

2. Og Moses kallade allann Israels lyd til samans, og sagde til þeirra:

3. Þer hafed sed allt þad sem Drottinn gerde í Egyptalande fyrer ydrum augum, bæde vid Pharao, og alla hans þenara, og vid allt hans land, þær hinar miklu freistingar sem þín augu hafa sed, ad þar skedu stórmerke og undur.

4. Og Drottinn hann hefir enn nú eigi allt til þessa dags gefed ydur eitt skilnings fullt hiarta, edur augunn ad siá med, edur eyrunn ad heyra med.

5. Fiørutíu ár hefir hann láted ydur ganga í eydemørkenne. Ydar klæde þau hafa eigi elldst á ydur, og þíner skór hafa eigi slitnad á þínum fótum.

6. Þer hafed eigi eted braud, og eigi helldur drucked vín, ne nockurn áfengann drick, so ad þú kynnder vita, ad eg em Drottinn ydar Gud.

7. Og þá þer komud í þetta plats, fór út á móte oss Sihon, kongurenn af Hesbon, og Og, kongurenn af Basan, til ad beriast vid oss,

8. Og ver høfum sleiged þá, og innteked þeirra land, og gefed þad Rubenitum og Gadditum, og þeirre hálfre kinkvísl Manasse til arftøku.

9. So halldeð nú þesse sáttmálans ord, og gered þar epter, so þer kunned ad høndla vísslega í øllu sem þer gered.

10. Þer standed í dag aller saman fyrer Drottni Gude ydrum, hiner ædstu Menn ydra kinkvísla, ydrer elldungar, ydrer hofudsmenn, hver einn madur í Israel.

11. Ydar born, ydar húsfreyur, þíner framande, sem eru í þínum landtiolldum, bæde hann, sem er þinn vidhoggur, og hinn sá er þitt vatn sæker,

12. So ad þú skuler gangá í sáttmála Drottins Guds þíns, og í þeim eide sem Drottinn Gud þinn gerer vid ydur í dag.

13. Ad hann meige uppreisa þig í dag til eins folks, og hann skule vera þinn Gud, so sem hann hefir tilsagt þer, og so sem hann hefir svared þínum forfedrum, Abraham, Isaac og Jacob.

14. Þviad eg gere eigi þennann sáttmála og þennann eid alleinasta vid ydur,

15. Helldur bæde vid ydur, sem her erud í dag, og standed med oss fyrer Drottne Gude vorum, og vid þá sem her eru eigi í dag med oss.

16. Þvi þer vited hvernenu ver biuggum í Egyptalande, og fórum midt um þann heidendomenn, sem þer ferdudust í gegnum,

17. Og sáud þeirra svívirdingar, og þeirra afgude, stocka og steina, silfur og gull sem voru hiá þeim.

18. So ad þar se eigi, má vera, nockur sá karl edur kvinna, edur heimilisfolk, edur einhver sú kinkvísl á medal ydar, hvers hiarta ad hafe í burt snúed ser í dag frá Drottni Gude vorum til ad ganga í burt, og þióna Gudunum þessa folks, og kann vera, ad verde ein sú rót á medal ydar, sem ber gall og malurt.

19. Og enn þó ad hann heyre ordenn þessarar bolvanar, þá blessar hann sig þó líka samt í sínu hiartá og seiger: það vegnar mer vel, á medan eg geng so sem það mínu hiarta vel þocknast, so það hiner fordrucknu skulu fara þangad, ásamt med þeim sem ad þyrster eru.

20. Þá vill Drottinn eigi vera þeim miskunnsamur, helldur mun sú hin mikla hefnd og reide Drottins riuka yfer þeim Manne, so ad allar þessar bolvaner, sem her standa skrifadar í þessare bok, þá skulu leggiast á hann.

21. Og Drottinn mun afmá hans nafn under himnenum, og hann mun í burt skilia hann í frá ollum ættkvíslum Israel, til alls ills, epter ollum þessa sáttmálans bolvanar ordum, sem skrifud standa í þessare logmáls bok.

22. Þá munu so seigia epterkomendur ydara barna, þeir sem upp munu koma epter ydur, og hiner útlendsku, sem koma ur fiarlægum londum, nær ed þeir siá þær plágur, sem ganga yfer þetta land, og þau krankdæme, sem Drottinn slær þá med:

23. Ad hann uppbrenner allt þeirra land med brennesteine og sallte, so ad þar verdur eigi sád, og eigi helldur kann þar nockud upp ad vaxa, ne neinar jurter upp ad spretta, helldur eru þeir um kollkastader, líka sem Sodomá og Gomorra, Adama og Zeboim, hverum ad Drottinn kollkastade í sinne reide, og hefndar-bræde.

24. Þá munu allar þióder seigiá: hvar fyrer hefir Drottinn gert so vid þetta land? hvad er þetta fyrer so mikla hefndar reide?

25. Þá munu Menn seigia, þar fyrer: ad þeir hafa yfergefed sáttmálann Drottins Guds fedra þeirra, sem hann gerde vid þá, þá tíd hann útleidde þá af Egyptalande,

26. Og þeir geingu burt, og þiónudu annarlegum Gudum og tilbádu þá, soddann Gude sem þeir báru enga kenslu á, og eigi neitt høfdu veitt þeim.

27. Þar fyrer hefir reide Drottins ordeð so brád vid þetta land, ad hann hefir láted allar þær bølvaner koma yfer þá, sem skrifadar standa í þessare bók,

28. Og Drottinn hefir útreked þá af þeirra lande, í mikellre reide, grimmd og brædе, og í burt sleygt þeim í eitt annarlegt land, so sem ad þad (til) stendur þennann dag.

29. Drottins Guds vors leynder dómar eru oss og vorum børnum opinberer eylíslega, so ad ver skulum gera øll þesse løgmálsins ord.

## 30. Capitule.

1. Nær ed allt þetta kemur nú yfer þig, annad hvert blessanenn, eda bølvanenn, sem eg hefe fyrer þig lagt, og þú inngeingur til þíns eigenlegs hiarta, hvar sem þú ert á medal heidingianna, þangad sem Drottinn Gud þinn hefir þig í burt drifed,

2. Og þú snyr þer til Drottins Guds þíns aptur, so ad þú hlyder hans raust, þú og þín børn, af øllu hiarta, af allre sálu, í øllu þvi sem eg byd þer í dag,

3. Þá mun Drottinn Gud þinn umsnúa þinne herleidingu, og vera þer miskunsamur, og saman safna þer í burt aptur frá øllu þvi fólke, sem Drottinn Gud þinn hefir í sundur dreift þer á medal.

4. Þó ad þú værer enn í burt drifenn allt til himensins enda, þá mun þó Drottinn Gud þinn samansafna þer, og flytia þig þadann í frá.

5. Og hann mun flytia þig í þad landed, sem þíner fedur hafa átt, ad þú skuler inntaka þad, og hann mun gera vel í móte þer, og fiølga þig framm yfer fedur þína.

6. Og Drottinn Gud þinn mun umskera þitt hiarta, og hiartad þíns sædis, so ad þu elsker Drottinn Gud þinn, af øllu þínu hiarta, og af allre þinni sálu, so þú meiger lifa.

7. Enn Drottinn Gud þinn mun leggia allar þessar bølvaner á óvine þína, og á þá sem þig hata, og þer ofsokn veita.

9. Enn þú munt snúast, og hlyda raustenne Drottins, so ad þu gerer øll hans bodord sem eg byd þer í dag.

9. Og Drottinn Gud þinn mun gefa þer luku í øllum þínum handaverkum, á þeim ávextenum þíns kvidar, af þeim ávextenum þinnar hiardar, og á þínum jardar ávexte, so ad þad skule þer vel vegna. Drottinn mun umvenda ser ad gledia sig yfer þer, þer tilgóda, líka sem hann gladde sig yfer þínum forfedrum,

10. Af þvi ad þú hlydder raustenne Drottins Guds þíns, ad hallda hans bodord og rettinde, sem skrifud standa í þessare løgmáls bok, ef ad þú snyr þer til Drottins Guds þíns, af øllu hiarta, og af allre sálu.

11. Þviad þad bodord sem eg byd þer í dag, er eigi huled fyrer þer, edur óflangt í burt,

12. Eigi helldur upp í himnenum, so ad þú þurfer ad seigia: hver vill uppfara fyrer oss í himeneun, og sækia oss þad? so ad ver kunnum ad heyra þad, og gera þar epter.

13. Þad er eigi hinnmeigenn hafsins, so ad þú meiger seigia: hver mun vilia fara fyrer oss yfer um hafed, og sækia oss þad, so ad ver meigum heyra þad og gera?

14. Þviad þad sama ordeð er miøg nærre þer, í þínum munne,

og í þínu hiarta, so ad þú skuler ge=
ra þad.
15. Siá þú! eg hefe í dag lagt þer
fyrer lífed, og þad hid góda, daud=
ann og hid vonda,
16. Í þvi sem eg byd þer í dag,
ad þú skuler elska Drottinn Gud
þinn, og ganga í hans vegum, og
vardveita hans bodord, løgmál og
rettinde, so ad þú meiger lifa og
fiølgast, og þad Drottinn Gud þinn
blesse þig í þvi landenu, sem þú fer
nú til ad eignast.
17. Enn ef þú snyr þínu hiarta,
og hlyder eigi þessu, helldur lætur
þu villa þig, so ad þú tilbidur ann=
arlega Gude, og þiónar þeim,
18. Þá kunngere eg ydur í dag,
ad þer, munud fyrerfarast, og eigi
lenge vera í þvi landenu, sem þú
ferdast nú til, yfer um Jordan, ad
eignast þad.
19. Eg tek í dag himen og jørd
til vitnis yfer ydur, eg hefe lagt
fyrer ydur lífed og daudann, bless=
anena og bølvanena, so ad þú meig=
er útvelia lífed, ad þú og þitt sæde
meige lifa.
20. Ad þer elsked Drottinn Gud
ydarn, og hlyded hans raust, og
hallded ydur vid hann, þviad þar
er þitt líf under komed, og þinn
langgædlegur alldur, so ad þú
meiger búa í þvi landenu, sem
Drottinn hefir svared þínum for=
fedrum, Abraham, Isaac, og Ja=
cob ad gefa þeim.

## 31. Capitule.

1. Og Moses geck í burt, og tala=
de þesse ord vid allann Israel,
2. Og sagde til þeirra: eg em í
dag hundrad og tuttugu ára gam=
all, eg kann eigi leingur ad ganga
út og inn. Þar med þá hefir og
Drottinn sagt til mín: þú skallt eigi
ganga yfer um þessa Jordan,
3. Drottinn Gud þinn mun sialf=
ur ganga fyrer þer, hann mun sialf=
ur foreyda fyrer þer þessu fólke, so
ad þú inntaker þá, Josua skal gan=
ga her yferum fyrer þer, so sem þad
Drottinn hefir sagt.
4. Og Drottinn mun so gera vid
þá, sem hann gerde vid Sihon og
Og, þá Amoritanna konga, og þeir=
ra land, sem hann foreydde.
5. Nær ed Drottinn gefir þá nú
fyrer ydur, þá skulud þer gera vid
þá epter øllum þeim bodordum, sem
eg hefe boded ydur,
6. Vered hrauster og fullhugad=
er, óttest eigi, og vered eigi hrædder
fyrer þeim, þviad Drottinn Gud
þinn mun sialfur ferdast med þer,
og hann mun eigi í burt taka sína
hønd frá þer, edur yfergefa þig.
7. Og Moses kallade á Josua,
og sagde til hans: fyrer alls Israels
augsyn, vert þú hughraustur og
ókvídenn, þvi þú skallt inn leida
þetta folk í þad landed sem Drott=
inn hefir svared þeirra forfedrum,
ad gefa þeim, og þú skallt útskipta
þvi á millum þeirra.
8. Og Drottinn, sem sialfur geng=
ur fyrer ydur, hann mun vera med
þer, og hann mun eigi taka sína
hønd í frá þer, edur yfergefa þig;
óttast eigi, og vert eigi hræddur.
9. Og Moses skrifade þetta løg=
mál, og feck þad prestunum, sonum
Levi, þeir sem báru sáttmáls ørke=
na Drottins, og øllum ølldungun=
um af Israel.
10. Og baud þeim, og sagde: iá,
ad lidnum siø árum, á þeim tíma
sem frelsunar áred inn gengur, á
laufskála hátídenne,
11. Nær ed allur Israel kemur
til ad audsyna sig fyrer Drottni
Gude þínum, í þeim stad sem hann
mun útvelia, þá skalltu láta útbró=
pa þetta løgmál fyrer øllum Israel
fyrer þeirra eyrum,

12. Fyrer folkſins ſamkundu, bæde manna og kvenna, barna, og þinna framande, ſem ad eru innann þinna portdyra, ſo ad þeir meige heyra, og læra ad óttaſt Drottinn ydarn Gud, og ad hallda og gera øll ord þeſſa løgmáls.

13. Og ad þeirra børn ſem þetta eigi vita, meige og ſo heyra og læra, ad óttaſt Drottinn Gud ydar, um alla þá daga ſem þer lifed í því landenu, ſem þer fared nú til, yfer um Jordan, ad eignaſt.

14. Og Drottinn ſagde til Moſen: ſiá, þín tíd er nálæg, ad þú ſkallt andaſt, kalla á Joſua, og ganged inn í ſamkundu-tialldbúdena, ſo ad eg gefe hønum bífalning. Moſes geck af ſtad med Joſua, og þer gengu inn í ſamkundu tialldbúdena.

15. Enn Drottinn birteſt í tialldbúdenne, í ſkíſtolpanum, og ſá ſame ſkíſtolpenn ſtód í búdardyrunum.

16. Og Drottinn ſagde til Moſen ſiá! þu munt ſofna med fedrum þínum, og þetta folk mun uppkoma, og hóraner drya med annarlegum Gudum, í því landenu í hvert þeir koma, og yfergefa mig, og láta þann ſáttmála fara ſem eg hefe gert vid þá.

17. Og mín reide mun þá geyſeleg verda yfer þeim, í þann tíma, og eg mun yfergefa þá, og byrgia mitt andlit fyrer þeim, ſo ad þeir ſkulu foreydder verda. Og nær ed mikel ógæfa og angiſt kemur yfer þá, ſo munu þeir ſegia: eru eigi allar þeſſar meinſemder komnar yfer mig, af því ad minn Gud hann er eigi med mer?

18. Og eg ſkal byrgia mitt andlit á ſama tíma, fyrer ſaker alls þeſs hins illa, ſem þeir hafa gert, þad þeir hafa ſnúed ſer til annarlegra Guda.

19. So ſkrifed ydur nú þennann ſaungdict, og kenned hann Iſraels børnum, og legged hann í þeirra munn, ſo ad ſá ſame diktur meige vera mer einn vitnisburdur á medal Iſraels barna,

20. Þvíad eg vil innleida þá í þad landed, ſem eg hefe ſvared þeirra forfedrum, þar ed miolk og hunáng flytur í, og nær ed þeir neyta, og veraſt fuller og feiter, þá munu þeir ſnúa ſer til annarlegra Guda, og þióna þeim, og hæda mig, og yfergefa minn ſáttmála,

21. Og nær ed mikel ógæfa og angiſt kemur yfer þá, þá ſkal þeſſe diktur þeim ſvar gefa, til vitnisburdar, þvíad hann ſkal eigi forgleymaſt út af munne þeirra ſædis. Þvíad eg veit þeirra þanka, hvera ed þeir nú alla reidu hafa, ádur enn eg hefe innleidt þá í þad landed, ſem eg hefe ſvared.

22. So ſkrifade Moſes ſama tíma þennann dikt, og kennde hann Iſraels børnum.

23. Og baud Joſua, ſyne Nuns, og ſagde: vertu øruggur og óhræddenn, þvíad þú ſkallt innleida Iſraels børn í þetta land, ſem eg hefe ſvared þeim, og eg vil vera med þer.

24. Þá ed Moſes hafde nú algerlega útſkrifad þeſſe løgmálſins ord í eina bok,

25. Þá baud hann Levitunum, ſem báru vitnisbúrdar ørkena Drottins, og ſagde:

26. Taked þeſſa løgmáls bok, og leggid hana í hlidena í þeirre ſáttmáls ørkenne Drottins Guds ydars, ad hún ſkule vera þar einn vitnisbúrdur á móte þer,

27. Þvíad eg þecke vel þína óhlydne og hardúd. Siá þú, þer erud enn nú, medan eg líſe hiá ydur í dag, óhlyduger á móte Drottni,

hverſu miklu meir þá epter minn dauda?

28. So ſamankalled nú fyrer mig allaølldungana af ydrum kinkvíſl-um, og ydra høfudsmenn, ſo ad eg meige tala þeſſe ord fyrer þeirra eyrum, og taka himen og jørd til vitnis í móte þeim.

29. Þviad eg veit, ad þer mun-ud ſpilla þeim epter minn dauda, og í burtvíkia af þeim veige ſem eg hefe boded ydur, ſo ad þar epterá mun ólucka koma yfer ydur, af þvi ad þer hafed illa gert fyrer augum Drottins, ad þer reited hann til reide medur ydrum handaverkum.

30. So talade Moſes þau ordinn þeſſa ſaungdikts øll ſaman út fyr-er eyrum alls Iſraels almúga.

## 32. Capitule.

1. Heyred þer til himnar, eg vil tala, og jørdenn hún heyre máled míns munns.

2. Minn lærdomur ſkal driúpa ſem regn, og mitt mál ſkal framm-flióta ſem dogg. Líka ſem regnid á graſenu, og ſo ſem droparner á jurtunum.

3. Þviad eg vil príſa nafn Drott ins, gefed vorum Gude alleina dyrdena.

4. Hann er eitt biarg, hans verk eru óſtraffanleg, Þviad allt hvad hann gerer, þad er allt rett. Gud hann er trúlyndur, og án allrar vondſku, hann er rettferdugur og gódur.

5. Sú hin rángſnúna og hin ill-giarna kinkvíſl fellur frá hønum, Þeir eru ſkammar-flecker, og eru ei-gi hans børn.

6. Þackar þú þannenn Drottni þínum Gude, þú gallda og heim-ſkufulla folk? er hann eigi þinn fad-er og þinn Drottinn? er hann eigi ſá alleinaſti ſem þig ſkapade og tilbió?

7. Minnſtu á hina fyrre tídena, og allt til þeſſá, og hygg ad þvi hvad hann gerde þeim gømlu fedr-um. Spyr þú þinn fødur ad þvi þinu ſama, hann ſkal kunngera þer þad, þíner ølldungar ſkulu ſeigia þer þad.

8. Þá ed ſá allra-hædſte ſundur-ſkipte fólkenu, og adſkilde manna-anna børn, þá ſette hann folkſins landamerke epter tølu Iſraels bar-na.

9. Þviad hlutſkipte Drottins er hans folk, og Jacob er ſá mælevad-urenn hans arftøku.

10. Hann fann hann í eydemørk-enne, út í einum þurrlendum eyde-ſtad, þar er grátur var. Hann flut-te hann, og gaf hønum løgmál, hann var líka ſem ſkáalldued ſíns auga.

11. Líka ſem ørnenn útleider ſína unga, og flygur yfer þeim; hann útbreidde ſína vænge, og tók þá upp, og bar þá á ſínum væng-um.

12. Drottinn leidde hann einn ſamall, og þar voru enger fram-ande Guder medur hønum.

13. Hann let hann fara hátt á jørdunne, og fædde hann med ak-urſins áverte, og let hann ſiuga hunang úr biørgunum, og vidſmiør úr þeim hørdu ſteinunum.

14. Smiøred af kúfenadenum, og miolkena af ſaudfenu, med þeir-re feitenne af lømbunum. Og þá feitu hrútana, og kiarnhafrana med nyrnafeitenne og hveitenu, og dry-ckiade hann med gódu vínberia blø-de.

15. Enn þá hann tók ad verda feitur og fullur, gerdeſt hann laus-látur, hann er ordenn feitur, þickur og ſtirkur, og hefir yfergefed þann Gud ſem ſkapade hann; hann hefir fyrrlited hellubiarged ſíns hiál-prædis.

16. Og hann hefir rett hann til vandlætingar, fyrer þá hina framande, med þeim svívirdingum hefir hann egnt hann til reide.

17. Þeir hafa offrad land-diøflunum, enn eigi sínum Gude. Þeim afgudunum sem þeir þecktu eigi, þeim nyu, sem eigi voru ádur, hvera ed ydrer fedur heidrudu eigi.

18. Þú ydergafst med fyrerlitningu þad hellubiarged sem þig fædde, og gleymder Gude sem þig skapade.

19. Og þá ed Drottinn sá þad, vard hann reidur vid sína syne og dætur.

20. Og hann sagde: eg vil byrgia mitt andlit fyrer þeim, eg vil siá hvernenn þeim mune ganga ad sídurstu, þviad þad er ein n ótsnúenn kinkvísl, þeir ern vantrúnd børn

21. Þeir hafa upp egnt mig med þvi sem eigi er Gud, og med þeirra afguda dýrdkan hafa þeir reitt mig til reide. Og eg vil þar í mót egna þá (til vandlætingar) yfer þeim sem eigi eru folk, medur einu fávísu fólke vil eg egna þá til reide.

22. Þviad elldurenn er upptendradur í minne reide, hann skal og brenna allt til hins nedstá helvítis, og hann skal foreyda landenu med sínum groda, og uppkveikia elld í fiallanna grundvelle.

23. Eg vil samansafna allre ógæfu yfer þá øllum mínum pílum vil eg skiota í þá.

24. Þeir skulu vanmegnast af hungre, og foreydder verda af kølidu sott og brádum dauda; og vil senda dyra tennur á medal þeirra, og høggorma eitur.

25. Hid ytra skal sverded ræna þá, og hid innra skelfing, bæde yngesmenn og meyar, og brióstbørnenn, ásamt med þeim gráhærdu mønnum.

26. Eg vil segia, hvar eru þeir? eg vil í burt taka þeirra minning á medal mannanna.

27. Ef ad eg fordadest eigi reidena þeirra óvina, ad þeirra óviner meige stæra sig þar út af, og mættu segia: vor magt er há, og Drottinn hefir eigi gert þetta alltsaman.

28. Þviad þad er eitt folk, þad sem er rádlaust, og þar er eingenn skilningur í þeim.

29. O væru þeir hyggner, og kynne ad formerkia slíkt, so ad þeir understæde þad, hvad yfer þá mun her epter koma.

30. Hvernenn geingur þetta til, þad einn skal ellta þusund af þeim, og tveir skulu slá tíu þusunder á flótta? er þad eigi so, ad þeirra hellubiarg hefir fellt þá? og Drottinn hefir ydergefed þá.

31. Þviad vort biarg er eigi sem þeirra biarg, þar um eru vorer óviner sialfer domarar.

32. Þviad þeirra víntre eru af Sodoma vínvide, og af þeim akurløndum Gomorra, þeirra vínber eru gall, þeir hafa beiskt ber.

33. Þeirra vín er drekanna eitur, og grimmrar nødru gall.

34. Er þetta eigi geymt hiá mer, og innsiglad í mínum liggianda fesiodi?

35. Hefndenn er mín; eg vil endurgiallda; á sínum tíma skal þeirra fótur skridna, þviad tímenn þeirra ógæfu er nálægur, og þeirra hid ókomna kemur med flyte.

36. Þviad Drottinn mun dæma sitt folk, og hann mun miskuna sig yfer sínum þenurum. Þvi hann mun álíta þad, ad þeirra kraptur er í burtu, og ad bæde þad innluckta og ydergefna er í burtu,

37. Og menn munu segia: hvar eru þeirra Guder? þeirra biarg sem þeir forletu sig uppá.

38. Af hverra fórnum þeir átu
þad feita, og drucku þad vined af
þeirra dryckiar-offre, láted þá upp-
standa og hiálpa ydur, og veita yd-
ur hlífd.

39. Siáed þer nú, ad eg em hann
alleina, og ad þar er eingenn Gud
utann eg, eg kann ad deyda og líf-
ga; eg kann ad særa og ad græda,
og sá er eingenn sem kunne ad frelsa
út af minne hende.

40. Þviad eg vil upphefia mína
hønd í himenenn, og vil segia: eg
life eylíflegana.

41. Nær eg hvesse mitt sverd sem
adra elding, og mín hønd tekur til
ad refsa, þá vil eg hefna mín aptur
á óvinum mínum, og endurgialda
þeim sem mig hata.

42. Mín skeyte skal eg druckenn
gera af blóde, og mitt sverd skal kiøt
svelgia; iá, blód þeirra sem slegner
eru og hertekner, og yfer óvinarens
beru høfde.

43. Glæded ydur aller þer sem er-
ud hans folk, þviad hann mun hef-
na blodsins sinna þenara, og hann
mun hefna sín á sínum óvinum, og
miskunsamlegur vera yfer landenu
síns folks.

44. Og Moses kom, og talade øll
ordenn þessa loffsøngs fyrer folksins
eyrum, hann og Josua, sonur Nuns.

45. Þá Moses hafde nú úttalad
allt þetta til alls Israels lyds,

46. Þá sagde hann til þeirra:
legged uppá hiartad øll ord, sem eg
vitna í dag fyrer ydur, so ad þer
bióded ydrum børnum, ad þau hall-
de og gere allt hvad her seigest í
þessu løgmále.

47. Þvi þad er eigi eitt ónytin
ord til ydar, helldur er þad ydart
líf, og þad sama ord mun leingia
ydra lífdaga, í þvi landenu sem þer
fared nú til yfer um Jordan, til ad
eignast.

48. Þann sama dag talade Drott-
inn vid Mosen, og sagde:

49. Gack þú upp á þad fialled A-
barim, uppá þad fialled Nebo, sem
liggur í Moabita lande, þvert yfer
frá Jericho, og skoda þad landed
Canaan, hvert ad eg vil gefa Isra-
els børnum til eignar.

50. Og dey þú þar á fiallenu, þá
þú ert þangad uppkomenn, og safna
þer til þíns folks, líka sem þinn
broder Aaron hann andadest á fiall-
enu Hor, og safnade ser til síns
folks,

51. Þar fyrer, ad þer misgerdud
á móte mer á medal Israels barna,
hiá mótmælis vatnenu í Kades, í
eydemørkenne Zin, so þer helgudud
mig eigi á medal Israelis barna,

52. Þvi þú skallt siá landed þvert
yfer frá þer, sem eg vil gefa Israels
børnum, enn þú skallt eigi koma inn
þangad.

## 33. Capitule.

1. Þesse er sú blessan, med hverre
ad Moses Guds madur blessade Is-
raels børn ádur enn hann dó,

2. Og sagde: Drottenn er kom-
enn af Sinai, og hann er þeim af
Seir upprunnenn, hann birtest af
fiallenu Paran, og kom med marg-
ar þusunder heilagra. Til hans
hægre handar er eitt glóande løg-
mál til þeirra,

3. Hversu elskade hann folked,
aller hans heilager eru í þinne hen-
de, þeir munu setia sig hiá þínum
fótum, og munu læra af þínum ord-
um.

4. Moses baud oss løgmáled,
samkundu arf Jacobs,

5. Og hann stiornade einu kongs
embætte, og hellt þeim ædstu mønn-
um folksins til samans, og þeim
kinkvíslum Israels,

6. Ruben skal lífa og eigi deya,
og hans alþída skal fá vera.

7. Þesse er sú blessanenn Juda, og hann sagde: Drottinn heyre raustena Juda, gerdu hann ad stiornara síns folks, láttu hans magt mikla verda, og lát hann sá hiálp á móte sínum óvinum.

8. Og hann sagde til Levi: Þinn rettur og þitt lios skal vera hiá þínum heilaga manne, sem þú frístader í Massa, þar ed þer þráttudud hiá mótmæles vatnenu,

9. Hver sem seiger til síns fødurs, og til sinnar modur, eg se hann eigi, og til síns brodurs, eg þecke hann eigi, og til síns sonar, eg veit eigi, þeir hallda þín ord, og vardveita þinn sáttmála,

10. Þeir munu læra Jacob þín rettinde, og Israel þitt løgmál, þeir skulu bera þad reykelse fyrer þín vit, og heillt offur uppá þitt alltare,

11. Drottinn, blessa þú hans megn, lát þer þocknast hans handaverk, sundur slá þú þeirra hrigg sem setia sig upp á móte hønum, og á þeim sem hata hann, so ad þeir reise sig eigi upp.

12. Og til Benjamin sagde hann: sá hinn elskulege Drottins skal búa tryggelega, og hann skal alltíd hlífa hønum, og hann skal búa á millum hans herda.

13. Og til Josephs sagde hann: hans land liggur í blessan Drottins, þar eru edla áverter af himne, og af døggenne, og af þeim diúpunum, sem þar liggia under nidre.

14. Þar eru edla áverter af solunne, og edla fullþroadur ávøxtur af tunglenu,

15. Og af þeim hóufiøllunum mót austrenu, og af þeim smáhædunum æsinlega,

16. Og edla ávøxtur af jørdunne, og hvad sem í henne er. Hans nád sem biá í runninum kome yfer Josephs høfud, og yfer hvirfel þess Nasirs, á medal hans brædra.

17. Hans fegurdar prýde er líka sem eins frumgetins uxa, og hans horn eru sem eins einhyrnings horn; medur þeim sømu skal hann stevta folked til samans, allt til landsins enda. Þad eru þusunder Ephraim, og þær þusunder Manasse.

18. Og til Zebulon sagde hann: gled þig þu Zebulon í þínum útgange. Og þú Isaschar gled þig í þínum landtiølldum.

19. Þeir skulu kalla fólked uppá fialled, og offra þar rettlætesins offre. Því þeir munu siúga yferflotanlega gnægd siáfarhafsins, og þá nidursøcktu fesioduna í sandenum.

20. Og til Gad sagde hann, blessadur verde sá er útbreider Gad, hann liggur sem eitt Leon, og ræner armleggenn og hvirfelenn.

21. Og hann sá, ad hønum var gefed eitt høfud, einn lærefader, sem ad hulenn er, sá ed kom med folksins høfdingum, og frammkvæmer Drottins rettvíse, og hans rettinde í Israel.

22. Og til Dan sagde hann: Dan er eitt ungt Leon, hann mun flióta af Basan.

23. Og til Nephthali sagde hann: Nephthali skal hafa gnægd hvad hann gyrner, og mun fullur verda af blessan Drottins; á mót vestrenu og sudrenu skal hans eign vera.

24. Og til Asser sagde hann: Asser se blessadur med sonum, hann se þeckur sínum brædrum, og dyfe sínum fæte í vidsmiør,

25. Járn og kopar skal vera á hans sko, þín elle skal vera líka sem þinn æsku alldur.

26. Þar er eingenn Gud, so sem Israels Gud, hver ed situr á himnum uppe. hann vere þín hiálp, hans dírd er í skiunum.

27.Þar ed er Guds bústadur frá
upphafenu, og á medal armleggi-
anna eylíflegana. Og hann mun
útdrífa þína óvine fyrer þer, og se-
gia: vered eydelagder.
28.Jsrael hann skal alleina ugg-
laus búa; brunnur Jacobs skal ve-
ra á þvi landenu, sem korn og vín
er, þar til med skal hans himen
driúpa af døggu.
29.Sæll ertu Jsrael, hver er þinn
líkek o folk, ad þú verder holped
fyrer Drottinn, sem er þinn hiálp-
ar skiolldur, og þitt sigurvinningar
sverd; þíner óvíner skulu lægiast
(fyrer þer) enn þu skallt frambruna
á þeirra hædum.

## 34. Capitule.

1. Og Moses geck í burt af vøll-
unum þeirra Moabita, uppá fiall-
ed Nebo, uppá gnypu fiallsins Pis-
ga, iátngegnt Jericho. Og Drott-
inn synde hønum gervallt landed
Gilead, allt til Dan,
2. Og allt Nephthali, og E-
phraim, og Manasses land, og ger-
vallt landed Juda, út til hins ytsta
hafsins.
3. Og í mót sudrenu, þad sletta
vídlende gegnt Jericho þeim pálm-
vidar stadnum, allt til Zoar.
4. Og Drottinn sagde til hans:
þetta er þad landed sem eg hefe
svared Abraham, Jsaac og Jacob,
og sagde: eg vil gefa þínu sæde þad,
þu hefir nú sed þad med þínum aug-
um, enn þu skallt eigi ganga þer
yferum.
5. Og Moses sá þenare Drott-
ins andadest þar í þeim sama stad,
í Moabita lande epter orde Drott-
ins.
6. Og hann jardade hann í ein-
um dal í Moabita lande, þvert yfer
frá þvi husenu Peor, og eingenn
veit enn ná af hans grøf allt til
þessa dags,
7.Og Moses var hundrad og tut-
tugu ára gamall þá hann andadest,
eige glaptest hønum syn, og ei þver-
rade hønum hans kraptur.
8.Og Jsraels børn gretu Mosen,
í þriátiu daga, á þeim slettu vøll-
unum í Moabitalande, þar med þá
fullkomnudust harms og kløgunar
dagar epter Mosen.
9.OgJosua, sonurNuns, uppfyll-
test af vísdoms anda, þviad Moses
hafde lagt sínar hendur yfer hann,
og Jsraels børn hlyddu hønum, og
gerdu so sem Drottinn hafde boded
Mose.
10. Og þar reis eingenn prophe-
te sídan upp í Jsrael sem Moses,
hvern edDrottinn so þeckte frá aug-
lite til auglitis,
11. Fyrer allra handa tákn og
furduverk, sem þad Drottinn sende
hann til ad gera í Egyptalande, á
Pharao, og øllum hans þenurum,
og á øllu hans lande.
12.Og til allrar þeirrar magtar-
handar, og mikilla sióna, sem Mo-
ses gerde fyrer augsyn alls Jsraels.

Ending hinnar fimtu Moses bokar.

# Bokenn Josua.

## 1. Capitule.

1. Og þad skede, þá Moses þion
Drottins var andadur, þá sagde
Drottinn til Josua, sonar Nuns,
Moses þenara,
2.Moses minn þenare er andadur,
þar fyrer tak þig upp, og far yfer
þessa Jordan, þú og allt þetta folk,
í þad land sem eg gaf þeim Jsraels
børnum.
3. Eg hefe gefed ydur alla þá

stade sem ydrir fætur munu ganga uppá, so sem eg sagde til Mosen.

4. Frá eydemørkenne, og þessu Libano, allt ad því mikla vatne Phrath, allt Hethithers land, inn til þess stóra vesturhafs, skal vera ydars lands ummerke.

5. Eingenn skal standa í móte þer, alla þína lífdaga. Eg vil vera med þer, líka so sem eg var med Mose, og eigi vil eg yfergefa þig, og eigi helldur víkia frá þer.

6. Vertu hughraustur og ókvídenn, því þu skallt skipta landenu med þessu fólke, hvert eg sór þeirra forfedrum ad gefa þeim.

7. Vertu ad eins øruggur og miøg hraustur, so ad þu halldez og gerer alla hlute epter løgmálenu, því sem minn þenare Moses baud þer. Vík þú þar eigi frá, hverke til hægre ne vinstre handar, so þu kunner ad høndla forsiálega í øllum þeim hlutum sem þu skallt gera.

8. Og lát þessa løgmáls bok eigi koma frá þínum munne, helldur þeinktu um hana dag og nott, so þú meiger hallda og gera alla hlute þar epter, so sem skrifad stendur í henne. So skal þad luckast þer vel, í øllu því þu gerer, og þu munt vís-lega kunna þer ad hegda.

9. Siá þu, eg hefe boded þer, ad þú sert hughraustur og stirkur, óttast eigi, og vertu eigi hræddur, þviad Drottinn Gud er med þer, í øllum þeim hlutum sem þu skallt gera.

10. Þá baud Josua folksins høf-uds mønnum, og sagde:

11. Fared í gegnum herbúdernar, og skiped folkenu, og seiged: utveg-ed ydur neste, því þer skulud ferdast yfer um þessa Jordan epter þriá da-ga, so ad þer þar inn komed, og eignest þad landed sem Drottinn ydar Gud mun gefa ydur.

12. Og Josua sagde til þeirra Rubenita, Gaddita, og til halfrar Manasse kinkvíslar,

13. Minnest á þau ord sem Mo-ses þenare Drottins talade til ydar og sagde: Drottinn ydar Gud hefir veitt ydur hvíld, og gefed ydur þet-ta land.

14. Láted ydar kvinnur, børn, og búsmala, blífa epter í landenu, því sem Moses hefir gefed ydur þessu-meigenn Jordanar, enn þer skul-ud ganga vopnader fyrer ydrum brædrum, aller þer sem strídsfærer erud, og hiálpa þeim,

15. Þar til ad Drottinn gefur og ydrum brædrum hvíld, líka so sem ydur, ad þeir eignest landed, þad Drottinn ydar Gud mun gefa þeim þá skulud þer snúa aptur í ydart land, sem Moses Guds þenare gaf ydur til eignar þessumeigenn Jord-anar, móte anstre.

16. Og þeir svørudu Josua, og søgdu: ver vilium gera allt þad sem þu hefir boded oss, so og vilium ver fara hvert sem þu sender oss.

17. Og so sem ver vorum Mose hlyduger, so vilium ver og hlyda þer, vere ad eins Drottinn Gud þinn med þer, líka sem hann var med Mose.

18. Hver sem er þínum munne óhlydugur, og eigi hlyder þínum ordum í øllu því þú bydur oss, sá skal deya; vert þu ad eins hughrau-stur og ókvídenn.

## 2. Capitule.

1. Enn Josua, sonur Nuns, hafde sendt á laun tvo niósnar Menn af Sittim, og sagt þeim: fared og skod-ed landed, og Jericho. Þeir fóru af stad, og komu inn í hús einnrar skækiu sem het Rahab, og tóku sér þar herberge.

2. Þá var þetta sagt kongenum af Jericho: sia! á þessare nóttu eru

komner hingad Menn af Israels bornum, ad niósna um landed.

3. Þá sende kongurinn af Jericho bód til Rahab, og let seigia henne: sel framm þá Menn sem komner eru til þín í þitt hús, þvi þeir eru komner hingad ad niósna um allt landed.

4. Enn kvinnann falde þá tvo Menn, og sagde so: iá, her komu Menn inn til mín, enn eg vissa eigi hvadan þeir voru.

5. Og sem mirkt var orded, og móte þvi ad borgarhlidenn skylldu aptur látast, þá gengu þeir ut, so eg veit eigi hvert þeir gengu; fared sem skiótast epter þeim, þá náed þer þeim.

6. Enn hún let þá stíga upp á þaked, og falde þá under horhálmenum, sem hún hafde breidt á þaked,

7. Enn mennerner sóktu epter þeim á veigenn til Jordanar, til feriustadarins: enn sem þeir voru utfarner sem þeim epterfor veittu, þá voru borgarhlidenn apturlátenn.

8. Og ádur enn þad mennerner lógdu sig til svefns, fór hún upp til þeirra á þaked, og sagde til þeirra:

9. Eg veit ad Drottinn hefir gefed ydur þetta land, þviad ein hrædsla er fallenn yfer oss fyrer ydur, og aller landsins innbyggiarar bera kvída fyrer ydir tilkomu,

10. Søkum þess, ad ver høfum heyrt, hversu ad Drottinn þurkadevatned fyrer ydur í þvi rauda hafe, þá þer fórud af Egyptalandi og suolíka hvad þer gerdud tveimur Amorita kongum, Sihon, og Og, hinumeigenn Jordanar, hvernenn þer eydelogdud þá.

11. Og upp frá þvi ver heyrdum þetta, þá er ædra komenn í vor brióst, og þar er eingenn hugur framar í nockrum manne vegna ydar tilkomu, þviad Drottinn ydar Gud er einn Gud, bæde á himnum uppe, og á jørdu nidre.

12. So svered mer nú vid Drottinn, ad vegna þess eg framde miskun vid yckur, ad þer veited og so miskun mínu fødurs huse, og gefed mer eitt víst merke,

13. Ad þid vileð láta minn fódur, mína modur, mína brædur, og mínar systur lífa, og allt þad þeim tilkemur, og frelsed vorar sáler frá daudanum.

14. Mennerner søgdu til hennar, ef ver gerum eigi miskun og tryggd vid þig, þá Drottinn gefur oss þetta land, þá skulu vorar sáler deya fyrer ydur, so framt sem þú lætur eigi þetta vort samtal í lióse.

15. Þá let hun þá síga í feste ófann fyrer múrenn, ut um eitt vindauga, þviad hennar hus stód nær borgarveggnum, so ad hún bió og so uppá murnum.

16. Og hun sagde til þeirra, fared uppá fialled, og feled yckur þar í þriá daga, so þeir mæte yckur eigi sem yckar fóru ad leita, þar til þeir koma aptur, sem yckur veita epterforena, sídann meiged þid fara yckarn veg.

17. Mennerner søgdu til hennar: vid vilum vera friálser af þessum eide, sem þú hefir tekid af ockur,

18. Ef þú heinger eigi þessa rauda feste út um þetta vindauga, í hverre þú letst ockur nidursíga, þá ver komum í landed, og so, hafer þú eigi samankallad í þitt hus, þinn fødur, þína modur, þína brædur, og þitt allt fødurs hús.

19. Og hver sem geingur út af þínum húsdyrum, hans blód skal vera yfer hans høfde, enn vid vilum vera saklauser. Enn leggest hønd á nockurn af øllum þeim sem eru í þínu húse, þá skal þeirra blód koma yfer vort høfud.

20. Enn verde so, ad þú seiger epter ockur þesse ockar erinde, þá vilium ver vera friálser af þessum eide, sem þú hefir teked af ockur,

21. Hun svarade: se so sem þid seiged, og hún let þá fara, og þeir gengu af stad, og hún hnytte þeirre raudu festenne í vindaugad.

22. Og þeir gengu af stad, og komu á fialled, og töfdu þar í þriá daga, þar til þeir komu aptur sem þeim epterførena veitt höfdu, þviad þeir höfdu leitad epter þeim á øllum vegum, og fundu þó eigi.

23. Sídan sneru þesser tveir menn aptur, og geingu af fiallenu, og fóru yfer um, og komu til Josua, sonar Nuns, og søgdu hønum frá øllum hlutum, so sem þeir høfdu varer orded.

24. Og søgdu til Josua: Drottinn hefir gefed allt landed í vorar hendur, og landsins aller innbyggarar eru felmsfuller fyrer oss.

## 3. Capitule.

1. Og Josua stód upp miøg snemma morguns, og þeir ferdudust frá Sittim, og komu til Jordanar, hann og øll Israelis børn, og voru þar um nottena, ádur þeir fære yfer um.

2. Enn þremur døgum þar epter, geingu høfudsmennerner um herbúdernar,

3. Og budu folkenu og søgdu: Þegar þer siáed Drottins Guds ydars sáttmáls ørk, og prestana af Levitunum berande hana, þá fared út af ydar platsum, og fylged henne epter.

4. Þó so, ad þar se nær tveggia þusund álna rum í millum ydar og hennar; þer skulud eigi ganga miøg nærre henne, so ad þer meiged vita hvern veg þer skulud fara, þvi þer hafed eigi fyrr geinged þennann veg.

5. Og Josua sagde til folksins: helged ydur, þviad Drottinn mun gera dádsemdarverk á morgun á medal ydar.

6. Og hann sagde til prestanna, bered sáttmálans ørkina, og gangid undan fólkenu. Og þá báru þeir sáttmálans ørk og geingu framm undan fólkinu,

7. Og Drottinn sagde til Josua: á þessum deige vil eg taka til ad mikla þig fyrer øllum Israel, svo ad þeir skulu vita, ad so sem eg var med Mose, so líka vil eg og vera med þer.

8. Og bjód þú prestunum sem bera sáttmálans ørkina, og seig: Þá þer komed fyrst í Jordanar vatn, þá standed kirrer.

9. Og Josua sagde til Israels barna: komed hingad, og heyred Drottins ydars Guds ord.

10. Og hann sagde: þar af skulud þer vita, ad sá lifande Gud er medal ydar, og ad hann skal utdrífa fyrer ydur þá Cananita, Hethita, Hevita, Pheresita, Gergosita, Amorita, og Jebusita.

11. Siá! sáttmáls ørk hans sem stiornar yfer alla verølld, hun skal fara undan ydur í Jordan,

12. So taked nú tolf menn af Israels ættkvíslum, einn mann af serhverum kinþætte.

13. Og þá prestarner, sem bera sáttmálans ørk Drottens, sem drottnar yfer allre verølld, láta sínar fætur í Jordans vatn, þá skal Jordans vatn skiliast ad, þad vatn sem rennur ófann ad, skal standa í einum hóp.

14. Enn sem fólked fór nú af sínum tialldbúdum, ad þeir skylldu ganga yferum Jordan, og prestarner báru sáttmálans ørkena framme fyrer fólkenu,

15. Og komu ad Jordan, so ad

Þeir drápu sínum fótum fremst í vatnid (enn) Jordan fyllde allann sinn farvea uppá backa, um allann kornskurdar tímann.)

16. Þá stód vatnid kirrt, þad sem ófann ad kom, og þrutnade upp í eina hæd, miøg langt frá fólkenu þess stadar, sem liggur vid síduna á Zarthan, enn vatned sem fyrer nedan framm rann til haffins, allt í salltann sió, þad þverrade og burt flaut. So geck fólkid yfer um gagnvart Jericho.

17. Og prestarner, sem báru Drottins sáttmáls ørk, stódu kirrer midt í Jordan, á þurru, og allt Israels folk geck þurrum fótum yfer um, þangad til ad allt fólked var yfer um Jordan komed.

## 4. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Josua:

2. Taked ydur tolf Menn, einn af hverre ættkvísl,

3. Og bióded þeim, og seiged: taked upp tolf steina af Jordan, ur þeim stad sem fætur prestanna standa á, og bered þá yfer um med ydur, og bered þá í þann stad sem þer skulud vera þessa nótt.

4. Þá kallade Josua tolf Menn, sem til voru skickader af Israels børnum, einn af hverre ættkvísl,

5. Og sagde til þeirra: ganged yfer um fyrer Drottins ydars Guds ørk, midt í Jordan, og taked einn stein hver ydar á sínar axler, epter ættkvísla tølu Israelis barna,

6. So þeir seu til teikns á millum ydar, þá ydar børn her epter spyria sína fedur her ad, og seigia: hvad þyda þesser steinar her?

7. Ad þer þá seiged þeim, hversu vatned Jordanar skildest ad fyrer Drottins sáttmáls ørk, þá þeir gengu yfer um Jordan, ad þesser steinar seu Israels børnum til æfinnlegrar minningar.

8. Þá gerdu Israels børn sem Josua baud þeim, og báru tolf steina midt úr Jordan, so sem Drottinn sagde til Josua, epter ættkvísla tølu Israelis barna, og báru þá med ser yfer um, allt til þess stadar sem þeir láu um nottena, og letu þá þar vera.

9. Og Josua uppreiste tolf steina midt í Jordan, þar sem prestanna fætur stódu, sem báru sáttmálans ørkena, og þeir eru þar enn nú á þessum deige.

10. Þviad prestarner, þeir sem báru ørkena, stódu midt í Jordan, þar til ad þad var allt fullkomnad, sem Drottinn hafde bódted Josua ad seigia til folksins, so sem Moses hafde ádur bífalad Josua, og fólked hradade ser, og geck yfer um.

11. Enn þegar fólked var nú allt saman yferum komed, þá fór og ørk Drottins yferum, og prestarner undan fólkenu,

12. Enn þeir Rubenitar og Gaditar, og helftenn af Manasse kine, geingu vopnader fyrer Israels børnum, so sem Moses hafde sagt til þeirra.

13. Nær fiørutíge þusunder, búner til bardaga, og þeir geingu fyrer Drottni til ad strída, á vøllum Jericho.

14. Og á þeim deige gerde Drottinn Josua mikelegann fyrer øllum Israel, og þeir óttudust hann so sem þeir óttudust Mosen alla hans daga.

15. Og Drottinn sagde til Josua:

16. Biód þú prestunum, þeim sem bera vitnisburdar ørkena, ad þeir stíge upp ur Jordan.

17. So baud Josua prestunum, og sagde: ganged upp ur Jordan.

18. Og þá prestarner, sem báru Drottins sáttmáls ørk, komu upp ur Jordan, og stigu á þurrt land sínum fótum, þá fell vatn Jordan-

ar aptur í sinn farveg, og rann so sem ádur upp ad øllum sínum backum.

19. Og þetta skede þann tíunda dag í þeim fírsta mánade, þá fólked ste upp ur Jordan, og sette sínar herbuder í Gilgal, austan til vid stadenn Jericho.

20. Og Josua sette þá tolf steina upp í Gilgal, sem þeir tóku úr Jordan.

21. Og sagde til Israels barna: Þá ydar børn spyria sína fedur sídar meir, og seigia: hvad merkia þesser steinar?

22. Þá skulud þer kunngera þeim þad, og seigia: Israel geck þurrum fótum yfer um Jordan,

23. A þeim tíma þá Drottinn ydar Gud let vatned Jordanar þurkast fyrer ydar, þar til þer komust yfer um, so sem Drottinn ydar Gud gerde í því rauda hafe, so hann þurkade þad fyrer oss, so leinge sem ver geingum þar yferum,

24. So ad allt folk á jørdunne meige þeckia hønd Drottins, hvad megtug hun er, so ad þer alla tíma ótteist Drottinn ydarn Gud.

## 5. Capitule.

1. Enn þá ad nú aller Amoritanna kongar, sem biuggu í vesturátt hinumeigenn Jordanar, og so aller Cananitanna kongar, hiá hafenu, heyrdu þad, ad Drottinn hafde þurkad Jordan fyrer Israels børnum á medan þeir geingu þar yfer, þá ædrudust þeirra hiørtu, so ad einginn hugarhreyste var framar meir med þeim, fyrer Israelis børnum.

2. A þeim tíma sagde Drottinn til Josua: ger þer steinknífa, og umsker Israels børn aptur í annad sinn.

3. Þá gerde Josua ser steinknífa, og umskar Israels børn á þeirre hæd Araloth.

4. Og þesse er ordsøkenn hvar fyrer Josua umskar allt folk karlkins, sem komed var af Egyptalande, þviad allt strídsfolk var andad á eydemørku, á veigenum, þá þeir fóru af Egyptalande, þviad allt þad folk sem ut geck var úmskored.

5. Enn þad allt folk sem fæddest í eydemørkenne, á vegenum, þá þeir ferdudust frá Egyptalande, var eigi umskored.

6. Þvi Israels børn geingu í fiørutíu ár í eydemørkenne þangad til ad allt þad strídsfolk sem kom af Egyptalande var daudt, þviad þeir hlyddu eigi raust Drottins. So sem Drottinn hafde svared þeim, ad þeir skylldu eigi siá þad land, sem Drottinn sór þeirra fedrum, ad gefa oss eitt land, þar sem miolk og hunáng flytur í,

7. Þeirra børn, sem upp voru komenn í þeirra stad, umskar Josua, þvi þeir høfdu yferhud, og voru eigi umskorner á vegenum.

8. Og sem folked var alltsaman umskored, þá voru þeir kirrer í sínum stad í herbudunum, þar til þeir urdu heiler.

9. Og Drottinn sagde til Josua, í dag hefe eg teked Egyptalands brixle frá ydur, og þesse stadur kallast Gilgal allt til þessa dags.

10. Og sem ad Israels børn høfdu herbuder sínar í Gilgal, þá helldu þeir páska, á vøllum Jericho, þann fiórtanda dag mánadarins ad kvølldе.

11. Og átu af landsins korne, á ødrum deige páska, sem var ósyrt braud, og steikt aux, rett á þeim sama deige.

12. Og man þraut, á þeim ødrum deige, sem þeir átu af landsins korne, so Israels børn høfdu eigi þadann í frá man, helldur átu þeir af Canaans lands korne á sama áre.

13. Og bad skede so, þá Josua var hiá Jericvo, ad hann upplypte sinum augum, og hann sá, ad þar stód madur gagnvart hønum, med brugdnu sverde í hende. Og Josua geck til hans, og sagde til hans, ertu af voru lide, eda vorra óvina?

14. Hann svarade og sagde: nei eigi, helldur em eg høfdinge yfer Drottins Her, og em nu komenn. Þá fell Josua til Jardar á sitt andlit, og tilbad, og sagde til hans: hvad seiger minn Herra til síns þenara?

15. Enn høfdingenn yfer Guds Her sagde til Josua: drag þína skó af þínum fótum, þvi þesse stadur er heilagur sem þu stendur á. Og Josua gerde so.

## 6. Capitule.

1. Enn Jericho var aptur luckt og bivørud fyrer Israels børnum, so ad eingenn mátte þar komast út ne inn.

2. Og Drottinn sagde til Josua: siá þar, eg hefe gefed Jericho med hennar konge og stríds mønnum í þínar hendur.

3. Lát alla stríðsmennena ganga í kringum stadenn einusinne, og ger so í sex daga.

4. Enn á þeim siøunda deige, þá lát prestana taka þær siø fagnadarársins basunur framme fyrer ørkenne, og ganga á þeim siøunda deige siø sinnum í krinkum stadinn, og lát prestana blása í basunurnar,

5. Og þá blásed er í fagnadar árs hornenn, so þer heyred dynenn basunannar, þá skal allt folked gera eitt miked heróp, þá munu stadarins múrvegger hrynia nidur, og folked skal falla inn í stadinn, sérhver rett framm sem hann er staddur.

6. Þá kallade Josua, sonur Nuns, prestana, og sagde til þeirra: bered sáttmáls ørkena, og láted siø presta bera siø fagnadarársins basunur undann ørk Drottins.

7. Og hann sagde til folksins, fared af stad, og ganged í kringum stadenn, og hver sem vopnadur er gange hann framm undann ørk Drottins.

8. Og sem Josua hafde sagt þetta til folksins, þá báru þeir siø prestar, þær siø fagnadar ársins basunur fyrer ørk Drottins, og geingu, og blesu í básunurnar, og sáttmáls ørk Drottins fylgde þeim á epter,

9. Og þeir sem herklædder voru geingu undann prestunum, þeim sem í básunurnar blesu, og alþídu hópurinn epterfylgde ørkenne, og blesu í básunur.

10. Enn Josua baud fólkenu og sagde: þer skulud eigi gera nockud heróp, og láted eigi heyra ydar rausst, og eigi eitt ord ganga af ydrum munne, fyrr enn á þeim deige ad eg seige til ydar: æped eitt heróp, so skulud þer æpa eitt heróp.

11. So geck nú ørk Drottins einu sinne í kringum borgena, og kom í herbúdernar, og var þar um nottena,

12. Þvi Josua plagade ad standa árla upp á morgna, og prestarner báru ørk Drottins.

13. Og þeir siø prestar báru þær siø fagnadar ársins básunur undann ørk Drottins, og geingu og blesu í básunurnar: enn þeir sem vopnader voru, geingu fyrer þeim, og alþyduhopurenn geck epter ørk Drottins, og blesu í básunurnar.

14. Þeir geingu og so þann annann dag eitt sinn kringum stadenn, og komu aptur í herbudernar; so gerdu þeir í sex daga.

15. Enn þann siøunda dag stódu

þeir árla upp í døgun, og geingu í kringum stadenn sioſinnum, epter sama hætte, so þeir komu sioſinnum á þessum einum deige í kringum stadenn.

16. Og á þeirre siounda reisu, sem prestarner bleſu í báſunurnar, þá sagde Josua til folksins: æped eitt herhrop, þvi Drottinn hefir gefed ydur stadenn.

17. Enn þesse stadur, og allt þad sem er í hønum, skal vera bannfært Drottni. Skækiann Rahab skal alleina líse hallda, og aller þeir sem eru í hennar húſe, þvi hún fól þá sendemenn sem út voru sender af oſs.

18. Enn eins kostar vakted ydur fyrer þvi bannfærda, so þer bannfæred eigi ydur, ef þer taked nockud af þvi sem bølvad er, og gered Israels herbúder bannfærdar þar med, og komed þeim í óluckn.

19. Enn allt þad silfur og gull, so og líka koparker og iárnker, þad skal vera heilagt fyrer Drottne, so þad kome til Drottins feſiodar.

20. Og folked æpte eitt herhróp, og bleſu í baſununnar, þviad þegar folked heyrde baſunanna hvell, þá gerde þad eitt miked heróp, og múrveggerner hrundu nidur, og folked geck upp í stadenn, hver hid gegnsta framm frá ser.

21. So unnu þeir stadenn, og foreyddu øllu þvi sem í stadnum var, med sverds eggium, bæde mønnum og konum, ungum og gømlum, nautum, ſaudum og øſnum.

22. Enn Josua ſagde til þeirra tveggia manna, sem høfdu nioſnad um landid: fared í hús þeirrar lausakonu, og leided konuna út þadan, med øllu þvi sem henne til kemur, so sem þer hafed ſvared henne.

23. Þá geingu þeir ungu menn, nioſnararner, þar inn, og leiddu Rahab út, og so hennar fødur og modur, og brædur, og allt þad sem henne tilkom, og alla hennar ætt, og letu hana vera fyrer utann Israels herbúder.

24. Enn borgena uppbrenndu þeir med ellde, og allt þad sem í henne var, utann silfur og gull, koparker og iárnker, þad løgdu þeir til feſiódar í hús Drottins.

25. Enn Josua let Rahab þá portkonu, og hennar fødurs hus lisa, og allt þad henne tilheyrde. Og hún bió á millum Israel, inn til þessa dags, þar fyrer, ad hún sal þá sendebóða, sem Josua hafde útsendt ad nioſna um Jericho.

26. Á þeim ſama tíma sór Josua, og ſagde: bølvadur se ſá madur fyrer Drottni sem uppreiser og bygger þennann stad Jericho. Þegar hann leggur hans grundvøll, þá gillde þad hans frumgetna ſon, enn þegar hann setur hans port, þá koste þad hans yngsta ſon.

27. So var nú Drottinn med Josua, ad um øll lønd barst hans rikte.

## 7. Capitule.

1. Enn Israels børn forgripu sig á þvi enu bannfærda, þviad Achan, sonur Carmi, sonar Sabdi, sonar Serah, af ætt Juda, tók nockud af þvi sem bannfært var. Þá gramdest reide Drottins yfer Israels børnum

2. Enn sem Josua nú útsende menn frá Jericho mót Ai, sem ad liggur hiá Bethaven austur frá Bethel, og ſagde til þeirra: fared upp, og nioſned um landed. Og þá þeir voru uppfarner, og høfdu nioſnad um Ai,

3. Þá komu þeir aptur til Josua, og søgdu til hans: lát eigi allt folked

fara upp þangad, helldur nær tvær eda þriar þusunder manna, ad þeir fare þar upp, og sláe Ai, so ad allt folked ómake sig ei, þviad þeir eru fáer.

4. So fóru af fólkenu upp þangad nær þriár þusunder manna, og þeir flúdu fyrer mønnunum af Ai.

5. Og þeir af Ai slóu nær sex og þriátíu menn af þeim, og ráku þá frá portunum allt til Sabarim, og slóu þá nidur epter veigenum, þá ædradist folksins hiarta, og vard ad vatne.

6. Og Josua reif sín klæde, og fell framm á sitt andlit til Jardar, fyrer ørk Drottins, allt til kvøllds, hann og ølldungarner af Israel, og jusu molldu uppá sín høfud.

7. Og Josua sagde: o Drottinn! Drottinn! þvi leidder þú þetta folk yfer Jordan, til þess, ad gefa oss í hendur þeirra Amoritanna, ad deyda oss? o ad ver hefdum vered kirrer hinumeigenn Jordanar, sem ver høfdum bidad!

8. Avi minn Drottinn! hvad skal eg seigia, med þvi Israel snyr baki vid sínum óvinum?

9. Þegar Cananitar, og aller landsins innbyggiarar spyria þetta, þá munu þeir umkringia oss, og afmá vort nafn af jørdunne, hvad villt þú þá gera vid þitt hid mikla nafn?

10. Þá sagde Drottinn til Josua: statt upp, þvi liggur þú so framm á þína ásiónu?

11. Israel hefir syndgast, og yfertrodid minn sáttmála sem eg baud þeim, þar med tóku þeir af því bannsærda, stálu og lugu, og løgdu þad á millum sinna fiárhluta.

12. Israels børn kunna eigi ad standa í móte sínum óvinum, helldur verda þeir ad snúa hriggnum til sinna óvina, af þvi, ad þeir eru í banne, eg mun eigi her epter verda med ydur, ef þer afmáed eigi þad bann í frá ydur.

13. Statt upp, og helga þú fólked, og seig: helged ydur til morguns. Þvi so seiger Drottinn Gud Israels: bann er á medal þín Israel, og þvi getur þú eigi staded á móte þínum óvinum, þar til ad þer skiled þetta bann frá ydur.

14. Og þer skulud koma snemma hingad, hver ein ættkvísl epter adra. Og hver sú ættkvísl sem Drottinn hitter uppá, skal koma framm, þeir einu ættingiar epter adra. Og hvera ættingia sem Drottinn hitter á, þeir skulu koma framm, eitt hús epter hid annad, og hvert hús sem Drottinn hitter á, skal koma framm einn húsbonde epter hinn annann.

15. Enn sá sem fundenn verdur í banne, sá skal brennast í ellde, med øllu þvi sem hann hefir, sokum þess, ad hann yfergeck sáttmála Drottins, og gerde eitt heimskupar í Israel.

16. Josua stód upp snemma morguns, og leidde Israel framm, eina ættkvísl epter adra, og so kom hlutur á kin Juda.

17. Og sem hann leidde ættkvísl Juda framm, þá fell hluturenn yfer Serahiters ætt.

18. Enn sem Serahiters ætt kom framm, einn húsbonde epter annann, þá fell hlutur yfer Sabdi. Og sem hann leidde sitt hús framm, einn húsbonda epter annann, þá fell uppá Achan, son Charmi, sonar Sabdi, sonar Serah, af kine Juda.

19. Og Josua sagde til Achan: minn sonur, gef Drottni Gude Israels dírdena, og gef hønum lofstyrenn, og seig mer til, hvad þú hefir gert, og leyn engu fyrer mer.

20. Achan svarade Josua, og

sagde: sannlega, eg hefe misgert í móte Drottni Israels Gude, svo og svo gerda eg.

21. Eg sá eina forkostulega Babyloniska kápu medal herfángsins, og tvo hundrud sikla silfurs, og eina gulltúngu, fimtíu sikla verda, ad vikt, þetta ágyrntunst eg, og tók eg þad, og siá, þetta er í jørd nidur grafed í minne tialldbúd, og silfred þar under.

22. Þá sende Jusua Sendemenn þangad; þeir runnu til tialldbúdarennar, og siá! þad var faled í hans tialldbúd, og silfred þar nidur under.

23. Og þeir tóku þad upp úr búdenne, og færdu til Josua, og til Israels barna, og løgdu þad framm fyrer Drottenn.

24. Sídann tók Josua, og allur Israel med hønum, Achan, son Serah, og svo silfred, kápuna og gulltunguna, hans sonu og dætur, hans uxa og asna, og saude, hans tialldbúd, og allt þad sem hann hafde, og fluttu þad upp í Achors dal.

25. Og Josua sagde: af því þú hefir hrellt oss, þá hrelle Drotinn þig á þessum deige, og allur Israel lamde þá grióte, og brenndu þá upp med ellde,

26. Og þá þeir høfdu grytt þá, gerdu þeir einn stórann grióthaug yfer þeim, hann stendur allt til þessa dags. So snere Drottinn ser frá sinne grimmdar reide, og þar af kallast þesse same stadur Achors dalur, allt til þessa dags.

## 8. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Josua: óttast eigi, og kvíd eigi; tak med þer alla bardaga menn, og tak þig upp, og far upp til Ai. Siá, eg hefe gefed kongenn af Ai, og hans folk, landed og borgena, í þínar hendur,

2. Og þú skallt gera vid borgena Ai, og hennar kong, so sem þú gerder vid Jericho, og hennar kong, fyrer utann þad, ad þer skulud skipta þeirra herfánge, og þeirra fe, ydar á millum, og seted launsátur á bak vid borgena.

3. Þá tók Josua sig upp, og allt strídsfolked, til ad ferdast upp til Ai. Og Josua útvalde þriátíu þusund strídsfærra manna, og sende þá út um nott,

4. Og baud þeim og sagde: siáed til, þer skulud vera í launsátinne bak vid borgena. Vered eigi miøg langt frá borgenne, og vered allersaman reidubúner.

5. Enn eg, og þad allt folk sem med mer er, vilum fara til stadarins. Og sem þeir fara út ímóte oss, so sem fyrr, þá vilum ver flya undann þeim,

6. So ad þeir fare út epter oss, þar til ver getum lockad þá nockud frá borginne, því þeir munu þeinkia, ad ver munum flya undann þeim, so sem ádur fyrr. Enn á medan ad ver flyum fyrer þeim,

7. Þá skulud þer rísa upp úr launsátrenu, og inntaka borgena, því ad Drottinn ydar Gud mun gefa hana í ydar hendur.

8. Enn þá þer hafed unned stadenn, þá seted elld í hann, og gered epter orde Drottins, siáed, eg hefe skipad ydur þetta.

9. Svo sende Josua þá af stad, og þeir geingu af stad í launsátred, og stadnæmdust í millum Bethel og Ai, í vestur frá Ai. Enn Josua var um nottena hiá fólkenu.

10. Og stód árdeigis upp um morgunenn, og fylkte fólkenu, og fór upp med þeim ellstu af Israel undann fólkenu ímót Ai,

11. Og allt strídsfólked sem var hiá hønum, fóru upp, geingu framm,

og komu til borgarennar, og slóu sínum herbúdum nordur frá Ai, so ad þar var ad eins eitt dalverpe í millum hans og Ai.

12. Og hann hafde teked nær fimm þusund manna, og sette þá í launsátred, í millum Bethel og Ai, vestur frá borginne.

13. Og þeir skickudu nidur lidenu úr øllum herbúdum, sem voru nordur frá borgenne, so ad (fylkingar) endenn tók vestur fyrer stadinn. So geck Josua þá sømu nott midt í dalinn.

14. Enn sem kóngurenn af Ai sá þetta, þá flyttu þeir ser, og biuggu sig út, þegar snemmindes, og mennerner af stadnum gáfu sig út ímót Jsrael til stríds, med øllu sínu fólke, á einn tilsettann flet á mørkenne, þvi hann visse eigi af, ad launsátur var uppá hann, á bak vid borgina.

15. Enn Josua og allur Jsrael letu sem þeir væru slegner af þeim, og fludu á veigenn til eydemerkur;

16. Þá var samankallad allt fólked í stadnum, ad sækia epter þeim, og þeir sóktu epter Josua, og gáfu sig ut af borgenne,

17. So þar vard eigi einn madur epter í Ai og Bethel, sem ad eige være útfarenn ad sækia epter Jsrael, og letu borgena standa opna, so þeir mættu sækia epter Jsrael.

18. Þá sagde Drottinn til Josua: útrettu þá lensu sem þú hefur í þinne hende ímóte Ai, þvi eg vil gefa hana í þínar hendur. Enn sem Josua upplyfte lensunne, sem hann hafde í sinne hende ímót borgenne.

19. Uppreiste launsátred sig skyndelega, af sínum stad, og hlupu, epter þad hann hafde útrett sína hønd, og komu í borgena, og unnu hana, og flyttu ser, og brenndu hana á bále.

20. Og Ai borgar menn sneru vid og sáu til baka, og sáu þad, ad reykurenn geck upp af stadnum til himens, enn þeir gátu hverge flued, hverke hingad ne þangad. Og þad folk sem flúde til eydemerkur, snere ser vid aptur ímóte þeim, ad ellta þá.

21. Sem Josua og allur Jsrael sáu, ad þeir sem í launsátrenu voru, høfdu unned borgena, fyrst ad reykurenn geck upp af stadnum, þá sneru þeir aptur, og slóu mennena af Ai.

22. Og þeir af borgenne komu og út í móte þeim, so ad þeir voru komner midt á millum Jsraels, sem voru á bádar sídur kringum þá; og þeir slóu þá, þar til ad eingenn stód epter af þeim, ne kunne undann ad komast.

23. Enn kongenn af Ai gripu þeir lífanda, og leiddu hann fyrer Josua.

24. Og þá Jsráel hafde sleiged íhel alla innbyggiara Ai, á mørkenne, og á eydemørkenne, sem ellta þá, og fellu aller fyrer sverds eggium, þar til þeir voru allerfallner, þá snere allur Jsrael ser til Ai, og slóu hana med sverds eggium;

25. Enn aller þeir sem fellu á þeim deige, bæde menn og kvinnur, voru tolf þusunder, allt folked út af Ai.

26. Josua tók eigi sína hønd aptur til sín, med hverre hann upphellt lensunne, fyrr enn allur borgar lydur Ai var foreyddur.

27. Utann búsmala og herfánge borgarennar skipte Jsrael sín í millum, epter orde Drottins, sem hann hafde boded Josua.

28. Enn Josua uppbrennde Ai, og gerde eina hrugu þar af æfinnlega, sem enn nú liggur þar í dag.

29. Sídann let hann heingia

19 *

kongenn af Ai upp í eina eik, allt til aptans. Enn epter solarfall so baud hann ad hans likame skyllde takast nidur af trenu, og þeir kostudu honum under stadar ported, og gerdu eina stóra grióthrúgu yfer honum, hver ad nu enn er þar á þessum deige.

30. Epter þetta byggde Josua Drottni Israels Gude eitt alltare á fiallinu Ebal,

31. (So sem Moses Guds þion baud Israels børnum, so sem skrifad stendur í Mose løgmáls bok, eitt alltare af heilum steinum, sem eigi voru høggner med iárne) og offrade Drottni þar yfer brennefórner og þacklætis fórner.

32. Og skrifade þar uppá steinana, þad annad løgmál, sem Moses fyrerskrifade Israels børnum.

33. Og allur Israel, med sínum olldungum og høfudsmønnum, og domendum, stódu tveim meigenn arkarennar, hvert yfer frá prestunum af Levi, sem báru sáttmáls ørk Drottins, so vel þeir útlendu, sem hiner innfæddu, helmingur á móts vid fialled Grisim, og annar helmingur á móte Ebal fialle, sem Moses Guds þenare ádur boded hafde, ad blessa Israels folk.

34. Epter þad let hann úthrópa øll løgmálsins ord, um blessan og bølvan, sem þad skrifad stendur í løgmáls bokenne.

35. Þar var eigi eitt ord sem Moses hafde boded, ad Josua let þad eigi úthrópa fyrer øllu Israels fólke, og fyrer kvinnum og børnum, og fyrer þeim útlendsku sem voru á medal þeirra.

## 9. Capitule.

1. Þegar þetta feingu ad spyria aller þeir kongar sem þessumeigenn Jordanar biuggu, á fiallbygdunum, uppe, og líka þeir sem biuggu á slettlendenu, og aller sem voru út med þvi mikla hafe, og so þeir sem voru hiá fiallenu Libanon, sem voru Hethitar, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar,

2. Þá søfnudust þeir saman, med einu samhellde, til bardaga, ímóte Josua og Israel.

3. Enn borgarmenn af Gibeon, þá þeir freitu hvad Josua hafde gert Jericho og Ai,

4. Þá upphugsudu þeir þetta brøgdugt rád. Þeir fóru af stad, og sendu bod út, og tóku gamla secke á sína asna, og gamlar sundurrifnar bættar vínsløskur.

5. Og gamla bætta skó á sína fætur, og færdu sig í forn klæde, og allt þad braud, sem þeir tóku med ser, var hardt og miglad.

6. Og þeir geingu fyrer Josua, í herbúdernar hiá Gilgal, og søgdu til hans, og til alls Israels, ver erum komner úr fiarlægu lande, so gered nú einn sáttmála vid oss.

7. Þá svarade allur Israel til Hevitanna: máske ad þú býer á millum vor, hvernenn meigum ver gera sáttmála vid þig?

8. Enn þeir søgdu til Josua: ver erum þíner þenarar. Josua svarade þeim: hverer erud þer, og hvadann komud þer?

9. Þeir søgdu: þíner þenarar eru komner af miøg fiarlægu lande, søkum Drottins þíns Guds nafns. Þvi ver høfum heyrt hans rikte, og allt þad sem hann gerde í Egyptalande,

10. Og allt þad sem hann gerde þeim tveimur kongum Amoritanna, hinumeigenn Jordanar, Sihon, kongenum af Hesbon, og so Og, kongenum af Basan, sem bió í Astharoth.

11. Og þvi søgdu vorer olldung=

ar, og aller vors lands innbyggiar-
ar, taked fædslur med ydur á veig-
enn, og fared til fundar vid þá og
seiged til þeirra: ver erum ydrer
Þenarar. So gered nú einn sátt-
mála vid oss.

12. Þetta vort braud, sem ver
tókum af vorum heimelum, oss til
fædslu, var nytt, þá ver fórum heim-
ann, til ydar, enn siáed, nú er þad
hardt og miglad.

13. Og þessar vínsløskur fylltum
ver nyar, og siáed ad þær eru í sund-
urrisnar, og þesse vor klæde og skór
eru nu ordinn forn, á þessare miøg
langre reisu.

14. So tóku høfudsmennerner
af þeirra mat, og spurdu eigi munn
Drottins þar ad.

15. Og Josua gerde frid vid þá,
og uppsette einn sáttmála vid þá,
ad þeir skylldu hallda sínu lífe, og
þeir enu yppurstu af søfnudenum
sóru þeim.

16. Enn þremur døgum þar epter
sem þeir høfdu gert sáttmálann vid
þá, spurdu þeir þann kvitt, ad þeir
áttu byggder skamt frá þeim, og ad
þeir mundu búa í millum þeirra.

17. Þvi þá Israels børn høfdu
áframm fared, þá komu þeir á þri-
dia deige til þeirra borga, sem køl-
ludust Gibeon, Chaphira, Beeroth,
og Kiriath Jearim.

18. Og þeir slóu þá eigi, þvi
høfudsmennerner fyrer alþydunne
høfdu svared þeim eida, vid Drott-
inn Gud Israelis. Enn sem allur
søfnudurinn kurrade um þetta í
móte høfdingunum,

19. Þá søgdu aller høfdingar
alls almúgans: ver sórum þeim vid
Drottinn Israelis Gud, þvi meig-
um ver eigi snerta þá.

20. Enn þad vilum ver gera,
látum þá lifa, so þar kome eigi reide
yfer oss, søkum þess eids sem ver
høfum svared þeim.

21. Og høfdingiarner søgdu til
þeirra: láted þá lifa, so þeir høggve
vid, og bere vatn fyrer alla samkun-
duna, so sem høfdingarner hafa
sagt til þeirra.

22. Sídan kallade Josua þá, og
talade vid þá og sagde: þvi svikud
þer oss, og søgdud; ad þer værud í
fiarska vid oss, enn þer búed þó midt
á millum vor?

23. Þvi skulud þer nú bølvader
vera, so ad þar skal ei þrióta þræla
af ydur, sem høggva vid og bera
vatn til míns Guds húss.

24. Þeir svørudu Josua, og søg-
du: þad er þínum þenurum tilsagt,
ad Drottinn Gud tilsagde Mose sín-
um þenara, ad hann villde gefa yd-
ur allt landed, og eydeleggia alla
landsins innbyggiara fyrer ydur,
þvi urdum ver miøg hrædder um
vort líf fyrer ydur, og høfum þetta
gert.

25. Enn siá nú, ver erum í þín-
um høndum; ger vid oss hvad sem
þer synest godt og rett ad gera vid
oss.

26. Og so gerde hann vid þá, og
frelsade þá frá hende Israels bar-
na, ad þeir slóu þ i eigi íhel.

27. Og á þeim sama deige skipa-
de Josua þá til ad høggva vid, og
bera vatn, handa samkundunne, og
ad alltare Drottins, inn til þessa
dags, í þeim stad sem hann munde
utvelia.

## 10. Capitule.

1. Þegar ad Adoni Zedech, kong-
urenn af Jerusalem, heyrde, ad
Josua hafde unned Ai, og foreydt
hana, og gert vid Ai, og hennar
kong, so sem hann hafde gert vid
Jericho, og kong hennar, og ad þeir
af Gibeon høfdu gert frid vid Is-
rael, og voru nú kømner á medal
þeirra,

2. Þá slú yfer þá mikelle hrædslu, (Því Gibeon var einn stór stadur, eins so sem konungleg borg, og stærre enn Ai, og aller borgarar þar inne, voru góder strídsmenn,)

3. Sende hann til Hoham, kongsins í Hebron, og til Piream, kongsins af Jarmuth, og til Japhia, kongsins af Lachis, og til Debir, kongsins af Eglon, og let seigia þeim.

4. Komed her upp til mín, og veited mer stirk, so ver mættum slá Gibeon, þviad þeir hafa gert frid vid Josua og Israels børn.

5. Þá komu þesser fimm kongar Amoritanna til samans, og fóru upp þangad, kongurenn af Jerusalem, kongurenn af Hebron, kongurenn af Jarmuth, kongurenn af Lachis, og kongurenn af Eglon, med allan þeirra Her og magt, og settust um Gibeon, og stríddu á hana.

6. Enn þeir af Gibeon sendu til Jósua, í herbúdernar hiá Gilgal, og letu seigia hønum: snú eigi þinne hende frá þínum þenurum, kom þú sem fyrst upp hingad til vor, frelsa og hiálpa oss, þviad aller kongar Amoritanna, sem búa á fiallbygdum, hafa samansafnast á móte oss.

7. Josua ferdadest upp frá Gilgal, og allt strídsfolk med hønum, og aller strídsfærer Menn.

8. Og Drottinn sagde til Josua; eige skalltu óttast fyrer þeim, því eg hefe gefed þá í þínar hendur. Eingenn af þeim skal standast fyrer þer.

9. Þá kom Josua á óvart yfer þá þviad alla nóttena í gegnum var hann á ferd upp frá Gilgal.

10. Enn Drottinn gerde þá hrædda fyrer Israel, so ad þeir slóu eitt miked slag í Gibeon, og raku þá á flótta, á þann veg sem liggur til Bethhoron, og slóu þá allt til Aseka og Makeda.

11. Enn sem þeir flydu fyrer Israel, nidur á þann veg sem liggur ófann til Bethhoron, þá let Drottinn stórt hagl falla ófann af himnum, yfer þá, allt til Aseka, so ad þeir deydu, og miklu fleyre af þeim dóu af því sama hagle, helldur enn Israels børn deyddu med sverde.

12. A þessum sama deige, þá Drottinn hafde gefed þá Amorita under Israel, þá talade Josua til Drottins, og sagde: ad nærveranda Israel, sól! stattu kirr í Gibeon, og tungled í dalnum Aialon!

13. Þá stód solenn og tungled kirr, þar til ad folked hafde hefnt sín á sínum óvinum. Mun þad eigi skrifad í bok hins rettláta? so stód solenn midt á himnenum, og dró undan ad ganga nidur allan þann dag.

14. Og þar var eingenn dagur þessum líkur, hverke ádur ne sídann, þá Drottinn hlydde eins Manns raustu, þviad Drottinn bardest fyrer Israel.

15. Enn Josua ferdadest avtur til herbúdanna í Gilgal, og allur Israel med hønum.

16. Enn þeir fimm kongar flydu, og føldu sig í þeim heller hiá Makeda.

17. Þá var Josua sagt: ver høfum funded fimm konga falda í þeim heller hiá Makeda.

18. Josua sagde: velted stórum steinum fyrer Hellers munnann, og seted menn þar fyrer sem þá vardveite.

19. Enn þer vered eigi kirrer, helldur sæked epter ydrum óvinum, og sláed þá sem seinaster eru, og láted þá eigi komast inn í sínar borger, þviad Drottinn ydar Gud hefir gefed þá í ydar hendur.

20. Og þá Josua og Israels børn høfdu endad þann miøg mikla

bardaga á þeim, og fleiged þá miøg, þá komu þeir sem epter voru ordner af þeim í þá føstu stade.

21. Þá kom allt folked aptur til herbúda til Josua, hiá Makeda, med fride, og eingenn þorde ad hræra sína tungu fyrer Israels børnum.

22. Enn Josua sagde: opned þann Hellers munnann, og leided þá fimm konga til mín.

23. Þeir gerdu so, og leiddu þessa fimm konga til hans, úr hellernum, kongenn af Jerusalem, kongenn af Hebron, kongenn af Jarmuth, kongenn af Lachis, og kongenn af Eglon.

24. Enn sem þesser fimm kongar voru útleidder til hans, þá kallade Josua saman allan Israel, og sagde til høfdingianna yfer strídsfolkenu, sem fóru med hønum: komed hingad, og stíged med fótunum upp á hálsa þessara konga. Og þeir geingu framm og stigu á þeirra hálsa med fótunum.

25. Sídann sagde Josua til þeirra, óttest eigi, og vered óhrædder, vered hughrauster og óefader, þviad Drottinn mun so gera vid alla ydar óvine, sem þer berest í móte.

26. Sídan sló Josua þá og deydde þá, og heingde þá uppá fimm eikur, og þeir heingu í eikunum allt til kvølds.

27. Enn ad solar falle baud hann ad taka þá nidur af eikunum, og kasta þeim í þann heller, sem þeir høfdu faled sig í, og þeir báru stóra steina fyrer Hellirs munnann, og eru þeir þar enn nú á þessum deige.

28. Josua vann og þennann sama dag Makeda, og sló hana med sverds eggium, þar til hennar kong, og eydelagde hana, og aller sáler sem í henne voru, og let engann epter lifa, og eins gerde hann vid kongenn af Makeda, sem hann hafde gert vid kongenn af Jericho.

29. Sídan fór Josua, og allur Israel med hønum, frá Makeda til Libna, og strídde á hana,

30. Og Drottinn gaf hana og so í Israels hendur, og so hennar kong, og hann sló hana med sverds eggum, og allar sáler sem þar inne voru, og let engann þar epter verda, og hann gerde eins vid hennar kong, sem hann gerde vid kongenn í Jericho.

31. Sídan fór Josua, og allur Israel med hønum, fra Libna til Lachis, sló hervirke um hana, og strídde á hana,

32. Og Drottinn gaf og Lachis í Israels hendur, ad þeir unnu hana annars dags. Og þeir slóu hana med hvøssu sverde, og allar sáler sem þar inne voru, allt eins og hann hafde gert Libna.

33. Á þessum sama tíma fór Horam, kongur af Geser upp til ad hiálpa Lachis, enn Josua sló hann, og allt hans folk, so þar lifde eingenn epter.

34. Sídan fór Josua frá Lachis, med allan Israel, til Eglon, og settest um hana, og strídde uppá hana.

35. Og vann hana á sama deige, og sló hana med sverds eggum, og eydelagde þær allar sáler sem þar inne voru þann sama dag, í allann máta, eins og hann hafde gert Lachis.

36. Epter þetta fór Josua med allann Israel, upp frá Eglon, og til Hebron, og strídde á hana, og vann hana,

37. Og sló hana med sverds eggum, og hennar kong, med øllum hennar stødum, og þær allar sáler, sem í þeim voru, og let engann epter verda, í allann máta eins og hann gerde vid Eglon, og foreydde

henne, og øllum þeim sálum sem þar inne voru.

38. Þá snere Josua aptur med øllum Israel til Debir; og strídde á hana,

39. Og yfervann hana, og hennar kong, og alla hennar stade, og sló hana med bitru sverde, og foreydde þær allar sáler, sem þar voru inne, og let engann epter vera. Eins og hann gerde vid Hebron, so gerde hann og vid Debir, og hennar kong, og sem hann gerde vid Libna, og hennar kong.

40. So sló Josua allt landed uppá fiallbygdenne, og ímót sudre, og í dølunum, og hiá vatnslækunum, med øllum þeirra kongum, og let engann epter verda, og foreydde øllu þvi sem anda hafde, so sem Drottinn Israels Gud hafde boded.

41. Og hann slá þá frá Kades Barnea, og allt til Gasa og allt landed Gosen inn til Gibeon,

42. Og yfervann alla þessa konga med þeirra løndum á einum tíma, þviad Drottinn Israelis Gud bardest fyrer Israel.

43. Og Josua fór aptur til herbúdanna til Gilgal, med allan Israel.

## 11. Capitule.

1. Sem Jabin, kongur af Hazor, heyrde þetta, þá sende hann bod til Jobab kongsins af Madon, og til kongsins af Simron, og til kongsins af Achsaph,

2. Og til konganna í nordur, sem þar biuggu á fiallbygdum, og á sletlendenu fyrer sunnan Cinneroth, og so til þeirra sem biuggu í dølunum, í Naphoth Dór, út vid sióenn,

3. Til Cananitanna, bæde austur og vestur, til þeirra Amorita, Hethita, Pheresita, Jebusita á fiallsbygdunum, og til Hevitanna nedan under Hermons fialle, í Mizpalande.

4. Þesser fóru út med allann sinn Her, eitt miked folk, so margt sem sandur hiá sió, og miøg marger hestar og vagnar.

5. Aller þesser kongar søfnudu ser tilsamans, og komu og settu sínar herbúder í einn stad, hiá þvi vatne Merom, ad hallda bardaga vid Israel.

6. Og Drottinn sagde til Josua: eige skalltu hrædast þá, þviad á morgun, um þetta mund, vil eg gefa þá alla slegna fyrer Israels børnum, þu skallt þeirra hesta limhøggva, og uppbrenna þeirra vagna í ellde.

7. Og Josua fell óforvarande yfer þá, og allt strídsfolked med hønum, hiá vatnenu Merom, og fellu yfer þá.

8. Og Drottinn gaf þá í Israelis hendur, og þeir felldu þá, og ráku flottann allt til þeirrar miklu Zidon, og til þess varma vatns, allt til þeirrar stóru merkur, sem liggur í austur hiá Mizpa; og þeir slóu þá, þar til ad þar var eigi einn epter af þeim.

9. Þá gerde Josua vid þá so sem Drottinn hafde bóded hønum, og limleste hesta þeirra, og brennde þeirra vagna.

10. Og snere ser á þeim sama tíma, og yfer vann Hazor, og drap hennar kong med sverde (þvi Hazor var ádur høfud stadur fyrer øllum þessum kongaríkum.)

11. Og allar þær sáler sem voru í þeirre borg slóu þeir íhel med sverds eggium, og foreyddu þeim, og letu ecke epter lifa þad sem anda hafde, og uppbrennde Hazor med ellde,

12. Þar til vann Josua allra þessa=
ra konga stade, og sló þá, og þeir=
ra konga, med sverds eggum, og
foreyddе þeim, so sem Moses Guds
þenare hafde boded.
13. Enn á fiollum brenndu þó
Israels børn engar borger, utann
Josua brennde Hazor alleina.
14. Sídann skiptu Israels børn
øllu herfánge og fe, med ser, af
þessum stødum, enn drápu allt fol=
ked med sverds eggum, þar til þeir
høfdu afmád þad, og eigi letu þeir
neitt epter lifa, þad sem anda haf=
de.
15. So sem Drottinn hafde bod=
ed Mose sínum þenara, og Moses
baud Josua, so gerde Josua, so ad
þar brast eigi neitt uppá, allt þad
sem Drottinn hafde bifalad Mose.
16. So inntók Josua øll þesse
lønd, sem láu á fiallbygdunum,
og allt þad sem liggur til sudurs,
og allt Gosen land, og þær merk=
urnar, og dalena, og Israels fiall=
bygder med sínum dølum,
17. Frá þvi fialle sem løndenn
sundurdeiler, upp til Seir, allt til
Baal Gad, og til breiddarennar
fiallsins Libanon, nedan vid fialled
Hermon, hann yfervann alla þeirra
konga, og sló þá til dauda.
18. Enn langa tíma átte hann
orustur vid þessa konga.
19. Og þar var eingenn sú borg
sem med fride villde gefa sig under
Israels børn, (utann alleina þeir
Hevitar, sem biuggu í Gibeon)
helldur unnu þeir þær allar med
stríde.
20. Og þad skede svo af Drottni,
ad þeirra hiørtu forherdtust, til ad
mæta Israelis børnum med stríde,
svo ad þeir skylldu foreydast, og
enga nád finna, helldur ad þeir
skylldu eydeleggiast, svo sem Drott=
inn baud Mose.

21. A þeim sama tíma kom Jo=
sua, og upprætte Enakim af fiall=
byggdum, frá Hebron, af Debir, af
Anab, af øllum fiallbygdum Ju=
da, og af øllum Israels fiallbyg=
dum, og foreyddu þeim med þeirra
stødum.
22. Og let engann blífa epter
af Enakim í lande Israels barna,
utann í Gasa, Gath, og í Asdod,
þar urdu nockrer þeirra epter.
23. So inntók Josua allt landed,
í allann máta so sem Drottinn haf=
de sagt til Mosen, og gaf Israel þad
til arftøku, hverre ættkvísl sinn
part. Og landed let af ad hallda
stríd.

## 12. Capitule.

1. Þesser eru þeir konungar lands=
sins sem Israels børn slóu, og eig=
nudust þeirra lønd, hinumeigenn
Jordanar, imót austre, frá þvi vat=
ne Arnon, og til fiallsins Hermon,
og allt slettlended imóte austre.
2. Sihon, Amoritanna kongur,
sem bió í Hesbon, og ríkte frá Aro=
er, sem liggur hiá Arnons vatns
backa, og midt í vatnid, og yfer hálft
Gilead, allt til vatnsins Jabok, sem
er landamerke Ammons barna,
3. Og yfer þad sletta landed, inn
til siófar Cinneroth, til austurs, og
yfer þad sletta land, til þess sallta
hafs, í austur, á þann veg til Beth
Jesimoth, og frá sudre, nedan hiá
lækunum fiallsins Pisga.
4. Þar ad auk landamerke kongs=
ins Ogs í Basan, sem epter var af
þeim risunum, og bió í Astaroth og
Edrei,
5. Og ríkte yfer fialled Hermon,
yfer Salcha, og yfer alla Basan, inn
til þeirra landsmerkia Gesuri og
Máchati, og helftena Gilead, sem
var Sihons, kongsins af Hesbon,
landamerke,

6. Moses þenare Drottins og Israels børn slóu þá, og Moses Guds þenare gaf þeim Rubenitum, og Gadditum, og hálfum Manasse kinþætte ad inntaka þá.

7. Þesser eru landsins kongar, sem Josua og Israels børn slóu þessum megenn Jordanar imót vestre, frá Baal Gad, til Libani fialls flettu, til þess fialls sem í sundurskilur landed upp imót Seir; og Josua gaf Israels ættkvíslum þad til eignar, hverum sinn part,

8. Af þvi sem var á fiøllunum, í dølunum, og á mørkenne, hiá lækiunum, í eydemørkenne, og mót sudre, Hethitar, Amoritar, Cananitar, Pheresitar, Hevitar og Jebusitar.

9. Kongurenn af Jericho, kongurenn af Ai, sem liggur vid sídu af Beth El,

10. Kongurenn af Jerusalem, kongurenn af Hebron,

11. Kongurenn af Jarmuth, kongurenn af Lachis,

12. Kongurenn af Eglon, kongurenn af Geser,

13. Kongurenn af Debir, kongurenn af Geder,

14. Kongurenn af Harma, kongurenn af Arad,

15. Kongurenn af Libna, kongurenn af Adullam,

16. Kongurenn af Makeda, kongurenn af Beth El,

17. Kongurenn af Thapuach, kongurenn af Hepher,

18. Kongurenn af Aphek, kongurenn af Lasaron,

19. Kongurenn af Madon, kongurenn af Hazor,

20. Kongurenn af Simron Meron, kongurenn af Achsaph,

21. Kongurenn af Taenach, kongurenn af Megiddo,

22. Kongurenn af Kedes, kongurenn af Jachneam, hiá Carmel,

23. Kongurenn af Naphot Dor, kongurinn af Gilgal, sem var kongur Heidingianna,

24. Kongurenn af Tirza, þad eru einn og þriátiu kongar.

## 13. Capitule.

1. Sem Josua var gamall, og miøg vid alldur, þá sagde Drottinn til hans: þú ert nú gamall, og vel alldradur, enn miøg miked er epter af landenu ad vinna,

2. Sem er, allt Philistanna land, og allt Gessuri,

3. Frá Sihor, sem fellur framm hiá Egyptalande, til Ekrons landamerkia, mót nordre, sem tilreiknast þeim Cananitum, þeir fimm høfdingiar Philistinorum, sem er, Gasitar, Asdoditas, Ascalonitar, Gethitar, Ekronitar, og þeir Avitar.

4. Enn sunnann til er allt landed Cananitanna, og Meara, sem heyrdi til þeim Zidonitum inn til Aphek, til Amoritanna landamerkia.

5. Og þar til land þeirra Giblita, og allt Libanon mót austre, frá Baal Gad, nedan upp ad fiallenu Hermon, inn til komed er til Hamath.

6. Aller þeir sem búa á fiøllunum, frá Libanon, og allt ad þvi varma vatne, og aller Sidonitar, eg vil útdrífa þá fyrer Israelis børnum, enn þú legg á hlute, og skipt þeim á millum Israelis barna, so sem eg baud þer.

7. So skipt nú þessu lande til erfda á millum þeirra níu kinkvísla og á millum hálfrar Manasse ættar,

8. Því þeir Rubenitar og Gaditar hafa medteked þeirra part,

med þeim ødrum hálfum kinþætte af Manasse, sem Moses gaf þeim hinumeigenn Jordanar, imóte austre, líka sem Moses Herrans þenare gaf þeim,

9. Frá Aroer, sem liggur hiá Arnons vatns bockum, og frá þeim stad midt í vatnenu, og alla landeign Medba allt til Dibon,

10. Og allar borger Sihons, Amorita kongs, sem sat í Hesbon, inn til landamerkia Ammons barna.

11. Þar til med Gilead og Gesur, og Maachathi landamerke, og allt fialled Hermon, og so allt Basan, inn til Salcha.

12. Allt ríke Ogs í Basan, sem stiórnade í Astaroth, og í Edrei, sem nú var enn epter af Risunum, og Moses sló þá, og í burtdreif þá.

13. Enn Israels børn útrymdu eigi þá Gessurita, og Maachathita, helldur þa biuggu þeir Gessur og Maachath á medal Israels barna, allt til þessa dags.

14. Enn ættkvíslLevítanna gaf hann engann arf, þviad Drottins Israels Guds fórner eru þeirra arfleifd, so sem hann sagde til þeirra.

15. So gaf Moses Rubens barna kinþætte, epter þeirra ættkvíslum.

16. So ad þeirra landamerke skylldu vera frá Aroer, sem liggur vid fliots Arnons backa, og þann stad midt í vatnenu, med øllum slettuvøllum inn til Medba.

17. Hesbon, og alla hennar stade, sem liggia uppá slettlendenu Dibon, Bamoth Baal, og Beth Baal Meon,

18. Jahza, Kedemoth, Mephaoth,

19. Kiriathaim, Sibma, Zereth Sahar á fiollum dalsins,

20. Og Beth Peor, lækena hiá Pisga, og Beth Jesimoth,

21. Og alla stade á þeirre slettu. Og allt ríke Sihon, þess Amorita kongs, sem sat í Hesbon, sem Moses sló, med þeim høfdingium af Madian, Evi, Rekem, Zur, Hur og Reba, kongs Sihons yppurstu Menn, sem biuggu í landenu,

22. Og Bileam, spámann, Beor son, sem Israels børn slóu íhel med sverde, med þeim ødrum sem slegner voru.

23. Og Jordán var Rubens barna landamerke. Og þetta er Rubens barna Arfur, á millum þeirra kinþátta, landa og þorpa.

24. Moses gaf Gads barna kinþætte, á medal þeirra ættar,

25. Ad þeirra landamerke være Jaeser og allar borger í Gilead, og hálft landed Ammons barna, allt til Aroer, sem liggur í mót Rabbah.

26. Og fra Hesbon, allt til Ramath Mizpe, og Bethonim, og frá Mahanaim, allt til Debir landamerkia.

27. Enn í dalnum Betharam Beth Nimra, Suchot og Zaphon, sem epter var af Sihons kongs ríke af Hesbon, ad Jordan var landamerke, inn til Cinnereth sióar enda, hinumeigenn Jordaner mót austre.

28. Þetta er Gads barna arfleifd, í þeirra ættum, stødum og þorpum.

29. Þeim hálfa kinþætte Manasse barna gaf Moses epter þeirra ættum,

30. Ad þeirra landamerke voru frá Mahanaim, allt Basan, og allt kongs Ogs ríke af Basan, og aller Jairs stader, sem liggia í Basan, sem eru sextíu borger,

31. Og hálfpart af Gilead, Astharoth, Edrei, rikis Ogs kongs Stade af Basan gaf hann børnum Machirs, sonar Manasse, þad er hel-

mingurenn af Machirs børnum epter þeirra ætt.

32. Petta er þad sem Moses útskipti á Moabs vøllum, hinumeigenn Jordanar, austur frá Jericho.

33. Enn Moses gaf Levi kinkvísl engvaun arf, þvi Drottinn Israels Gud er þeirra arfur, sem hann sagde til þeirra.

## 14. Capitule.

1. Enn þetta er þad sem Israels børn hafa innteked í Canaans lande, þad sem Eleasar prestur, og Josua, sonur Nuns, og þeir ædstu fedur, á medal Israelis barna ættkvísla, útskiptu á millum þeirra.

2. Og þeir skiptu þvi med hlutfalle á millum þeirra, so sem Drottinn baud fyrer Mosen, ad gefa þeirre hálfre tíundu ættkvísl.

3. Þvi Moses hafde gefed þeim tveimur, og þeirre hálfu ættkvíslenne, erfda hluta hinumeigenn Jordanar. Enn hann gaf Levitunum engann arf med þeim,

4. Þviad þad voru tvær ættkvísler, af Josephs børnum, sem var Manasse og Ephraim, þvi gáfu þeir Levitunum engann part í landenu, utann borgernar, ad búa í, og forstade handa þeirra gotse og fenade.

5. Sem Drottinn baud Mose, so gerdu Israels børn, og skiptu landenu.

6. Þá geingu Juda børn framm til Josua í Gilgal, og Caleb, sonur Jephunne, Kenisiter, sagde til hans: Þú veitst hvad Drottinn sagde til Mosen Guds Manns, vegna þín og mín, í Kades Barnea.

7. Eg var fiøruttíu ára gamall þá Moses Drottins þenare útsende mig af Kades Barnea, ad niósna um landed, og eg sagde honum svar aptur epter minne samvitsku,

8. Enn míner brædur, sem geingu upp med mer, tøldu ædru í hiørtu folksins, enn eg fylgda Drottne mínum Gude trúlega.

9. Þá sór Moses þann sama dag, og sagde: Þad land sem þú geckst á med þínum fótum, þad skal vera þín og þinna barna erfd æfinlega, þvi þu eptersylgder mínum Drottne Gude trúlega.

10. Og siá nu, Drottinn hefir láted mig lifa sem hann sagde. Þad eru fimm og fióruttíu ár sídann, ad Drottinn sagde þetta til Moses, þá Israel geck í eydemørkenne. Og siá nú, eg em í dag fimm og áttatíu ára gamall,

11. Og eg em enn á þessum deige so hraustur sem eg var á þeim deige, þá Moses útsende mig, eins líka og sem minn kraptur var þá, so er hann enn nú til ad strída, og út og inn ad ganga.

12. Þar fyrer gef mer nú þessa fiallbyggd, sem Drottinn talade um á þeim deige, þvi þú heyrder á þeim sama deige, ad þeir Enakim búa þar uppá, og eru storer og sterker stader, ef ad Drottinn vill vera med mer, so eg meige útdrífa þá, so sem Drottinn hefir sagt.

13. Þá blessade Josua hann, og gaf so Caleb, syne Jephunne, Hebron til erfdaparts.

14. Þess vegna vard Hebron eign Calebs, sonar Jephunne Kenesita, allt til þessa dags, þvi hann eptersylgde Drottne Israels Gude trúlega.

15. Enn Hebron kalladest fyrr meir Kiriath Arba, sem var einn mikell madur á millum Enakim, og landed let af bardøgum.

## 15. Capitule.

1. Hlutskipte Juda barna ættkvíslar, á medal þeirra ættar, var

Edoms landamerke, til þeirrar eydemerkur Zin, í sudur, og til endans á þvi sydra lande,

2. So ad þeirra landamerke í sudur voru frá enda þess sallta hafs, þad er frá þeirre tungu sem geingur í sudurátt.

3. Og geingur út þar frá upp í móte Akrabbim, og geingur í gegnum Zin, og geingur sunnan ad, upp aptur mót KadesBarnea, og geingur í gegnum Hezron, og geingur upp ad Adar, og beyger sig í kring Karkaa.

4. Og geingur í gegnum Azmon, og kemur út til þess lækiar Egyptalands, so ad siórenn er ender þeirra landamerkia, þad seu ydar landamerke mót sudre.

5. Enn ydar landamerke í austur, er frá þvi sallta hafe, og til Jordanar enda. Landamerke í nordur, er frá hafsins tungu, sem er upp vid síduna á Jordan,

6. Og geingur upp til BethHagla, og víkur ser frá nordre til Beth Araba, og kemur sídan upp til steinsins Bohems, Rubens sonar,

7. Og geingur upp frá Achors dal til Debir, og frá þeirre nyrdre sídu mót Gilgal, sem liggur þvert yfer til Adumim, upp ad, sudur epter hia vatnenu. Sídan geingur þad til vatnsens EnSemes, og kemur út ad þeim brunne Rogel.

8. So geingur þad upp til dalsins sonar Hinnam, hiá sídu þeirra Jebusita, sem búa í Sudur, þad er Jerusalem, og liggur þadann uppá tindana fiallsins, sem liggur þvert frá Hinnams dal í vestur, og tekur inn til Raphaims dals, í mót nordre.

9. Þar epter kemur þad fra sømu fialls tindum, til Nephthoah vatns brunns, og kemur út til stadanna fiallsins Ephron, og beyger sig til Baala, þad er Kiriath Jearim.

10. Og geingur umkring fra Baala, mót vestre, allt til fiallsins Seir, og geingur út med Jearim fialls sídu, fra nordre, þad er Chesalon, og kemur þar frá ofann til Beth Semes, og geingur í gegnum Thimna.

11. Og bleypur út hiá Ekron sídu, mót nordre, og beyger til Sichron, og geingur yfer Baala fiall, og kemur út til Jabneel, so ad siórenn er hennar ende. Enn þad stóra haf er landamerke vestur frá.

12. Þesse eru Juda barna landamerke, rett umkring, í þeirra ættum.

13. Calebs, sonar Jephunne, partur var hønum gefenn á medal Juda barna, sem Drottinn baud Josua, sem var Kiriath Arba fødurs Enak, þad er Hebron.

14. Og Caleb útdreif þadann þá þriá syne Enaks, Sesai, Ahiman, og Thalmai, fødda af Enak.

15. Og fór þar fra upp til þeirra sem bióggu í Debir: enn Debir het í fordum tíd Kiriath Sepher.

16. Og Caleb sagde: hver sem kann ad slá og vinna Kiriath Sepher, þeim vil eg gefa mína dotter Achsa til eigenn kvinnu.

17. So vann Athniel, sonur Kenas, sem var brodurs sonur Calebs, stadenn, og hann gaf hønum sína dotter Achsa til eigennkvinnu.

18. Og þad skede, þá er hún kom heim, var henne rádlagt, ad hún skyllde beidast eins akurlendis af sínum fødur, og hún fell nidur af asnanum. Þá sagde Caleb til hennar, hvad skadar þig?

19. Hún sagde: gef mer eina blessan, þvi þú gafst mer eitt land í sudur átt, gef mer og so vatns uppsprettur. Þá gaf hann henne uppsprettur ofann og nedan.

20. Þetta er erfda partur Juda

barna ættkvíslar á medal þeirra ættar.

21. Og þessar voru borger barna Juda ættkvíslar, fra þeim einum enda og til annars, vid Edomita landamerke, í sudur átt, Kaphzeel, Eder, Jagur,

22. Kina, Dimmona, Ad Ada,

23. Kedes, Hazor, Ithnan,

24. Siph, Telem, Bealoth,

25. Hazor Hadatha, Kirioth Hetzron, þad er Hassor,

26. Amam, Sema, Molada,

27. HazarGadda, Hesmon, Beth Paleth,

28. Hazar Sual, Beer Sebá, Bisioth Ja.

29. Baela, Jim, Azem,

30. Eltolad, Chesil, Harma,

31. Ziklag, Madmanna, San Sanna,

32. Lebaoth, Silhim, Ain, Rimon, þetta eru níu og tuttugu borger med þeirra þorpum.

33. Enn í dallendenu var Esthaol, Zarea, Asna,

34. Sanoah, en Ganim, Tapuah, Enam,

35. Jarmuth, Adullam, Socho, Aseka,

36. Saraim, Adithaim, Gedera, Giderothaim, þesser eru fiortan stader, og þeirra þorp.

37. Zenan, Hadasa, MigdalGad,

38. Dileam, Mezpe, Jaktiel,

39. Lachis, Bazekath, Eglon,

40. Chabon, Lahmam, Cithlis,

41. Gederoth, BethDagon, Naema, Makeda, þetta eru sextan borger, og þeirra þorp.

42. Libna, Ether, Asan,

43. Jephtha, Asna, Nezib,

44. Kegila, Achsib, Maresa, þetta eru níu borger, og þeirra þorp.

45. Ekron med hennar dætrum og þorpum.

46. Fra Ekron, og til hafsins, allt þad sem nær til Asdod, og hennar þorp,

47. Asdod med hennar dætrum og þorpum, Gasa med hennar dætrum og þorpum, allt til vatnsins Egyptalands, og þad mikla haf er hans landamerke.

48. Enn á fiallbygdum var Samir, Jathir, Socho,

49. Danná, Kiriath Sanna, þad er Debir,

50. Anab, Esthemo, Anim,

51. Gosen, Holon, Gilo, þad eru ellefu stader og þeirra þorp,

52. Arab, Duma, Esean,

53. Janum, Beth Thapuah, Apheka,

54. Humta, Kiriath Arba, þad er Hebron, Zior, þetta eru níu borger og þeirra þorp.

55. Maon, Carmel, Siph, Juta,

56. Jesreel, Jakdean, Sanoah,

57. Kain, Gibea, Thima, þetta eru tíu borger, og þeirra þorp.

58. Halhul, Bethzur, Gedor,

59. Maarath, Beth Anoth, Eltekon. þetta eru sex borger, og þeirra þorp,

60. Kiriath Baal, þad er Kiriath Jearim, Harabba, tvær borger, og þeirra þorp.

61. Enn í eydemørku voru Beth Araba, Middin, Sechacha,

62. Nibsan, og sú salltstadurenn, og Engeddi, þetta eru sex borger, og þeirra þorp.

63. Enn þeir Jebusitar biuggu í Jerusalem, og Juda børn gátu eigi útdrifed þá. So voru þeir Jebusitar í Jerusalem med Juda børnum, allt til þessa dags.

## 16. Capitule.

1. Hlutfall barna Josephs var fra Jordan í mót Jericho, allt til þess vatns sem liggur í austur til Jericho, og sú eydemørk sem geing=

ur upp fra Jericho, i gegnum fiallsbygder Beth El,

2. Og kemur fra Beth El til Lus, og geingur í gegnum landamerke Archi Atharoth.

3. Og geingur so þar fra nidur epter, til vesturs, til Japhleti landamerkia, allt til nedra Beth Horon landamerkia, og inn til Gaser, og endast vid hafed,

4. Þetta tóku Josephs børn, Manasse og Ephraim, í arf-hluta.

5. Ephraims barna landamerke á medal þeirra ættleggs, á þeirra erfda parte til austurs, var Atharoth Adar, allt til hinnar efre Beth Horon,

6. Og geingur út í vestur fra Michmethath, sem liggur í nordur, og þadann bugar þad sig aptur í austur, til þess stadar Thaenath Silo, og geingur þar í gegn, austur epter til Janoha,

7. Og kemur nidur aptur fra Janoha til Atharoth, og Naaratha, og hleypur til Jericho, og geingur út til Jordan,

8. Og geingur fra Tapuah, og vestur til Nahal Kana, og endast vid sió. Þetta er arfhlute Ephraims barna kirkvíslar, á medal þeirra ættleggs,

9. Og allar Ephraims landamerkia borger, med þeirra þorpum, láu til samans vid Manasse barna erfda part.

10. Og þeir rymdu eigi út þá Cananita, sem biuggu í Gaser, so voru Cananitar medal Ephraim allt til þessa dags, og voru skattgillder.

## 17. Capitule.

1. Og hlutfalled fell Manasse ættkvísl, þvi hann er Josephs fyrste sonur, og hlotnadest Machir, fyrsta syne Manasse, fødur Gileads þvi hann var mikell bardaga madur, þar fyrer feck hann Gilead og Basan,

2. Þetta hlotnadest og þeim ødrum Manasse børnum á medal þeirra ættar, sem voru børn Abiesers, børn Heleks, børn Asriels, børn Sechems, børn Hephers, og børn Semida, þesse eru børn Manasse, Josephs sonar, karlkins í þeirra ætt.

3. Enn Zelaphead, sonur Hephers, sonar Gileads, sonar Machir, sonar Manasse, hafde enga syne, helldur dætur, og þesse eru þeirra nøfn, Mahala, Noa, Hagla, Milca, Thirza.

4. Og þær geingu til Eleasar kennemanns, og til Josua, sonar Nuns, og til þeirra yppurstu og søgdu: Drottinn baud Mose, ad hann skyllde gefa oss arfleifd á medal vorra brædra. Og þeim var gefinn erfdahlutur á medal sinna fødur brædra, epter Drottins bífalningu.

5. Og þar hlotnudust tíu (mæle) vader Manasse, fyrer utann Gilead land og Basan, sem liggur á hina sídu Jordanar.

6. Þviad Manasses dætur feingu arfhluta á millum hans sona, og þau ønnur Manasse børn feingu þad land Gilead.

7. Og Manasse landamerke voru fra Asser til Michmethath, sem liggur fyrer Sechem, og geingur út upp á hægre sídu, til þeirra í En Tapuah,

8. Þviad Manasse feck Tapuah land, og Manasse landamerki voru inn til Ephraims barna.

9. Sídann ganga þau nidur í sudur, til Nahal Kana, ad vatns stødunum, sem heyra Ephraim til, á millum Manasse stada. Enn fra nordre eru Manasse landamerke hiá lækunum, og endast vid sióinn.

10. Ephraims eign er í sudur, og

Manasse í nordur, og fiórenn er þeirra landamerke, og skióta ser til Asser, á nordur sídu, og á þá eystre sídu, til Isaschar.

11. So hafde nú Manasse á medal Isaschar og Asser, Beth Sean (Borg) med hennar dætrum, Jebláam, med hennar dætrum, og þá sem bigggu í Dor, med hennar dætrum, og þá í En Dor, med hennar dætrum, og þá í Taanach, med hennar dætrum, og þá í Megiddo, med hennar dætrum, og þridi partur af Napheth,

12. Og Manasse børn gátu eigi innteked þessar borger, helldur fóku Cananitar ad búa í því sama lande,

13. Enn þá Israels børn urdu megtug, þá gerdu þeir þá Cananita skatt-gillda, og útrymdu þá eigi.

14. Þá tøludu Josephs børn til Josúa, og søgdu: hvar fyrer hefir þú eigi gefed mer utann einn hlut, og einn arfhlutar part, enn eg er þó eitt miked folk, epter því sem Drottinn hefir so blessad mig?

15. Þá sagde Josua til þeirra: fyrst þú ert eitt fiølmennt folk, þá far upp í skógana, og høgg þar um, í lande Pheresitanna og Risanna, fyrst ad Ephraims fiall er þer ofþraungt.

16. Þá søgdu børn Josephs: ver fáum eigi þad fiall, því ad aller Cananitar, sem búa í dallende landsins, hafa járnvagna, hiá hverum Beth Sean, og hennar dætur liggia, og Jezreel í dalnum.

17. Josua sagde til Josephs húss, til Ephraim, og Manasse: þú ert eitt miked folk, og fyrst þú ert so stór þá skalltu eigi hafa einn hlut,

18. Helldur skal fialled hepra þer til, þar skógurenn er; høgg þú hann upp, og þad skal vera ender á þínu hlutskipte, þá þú hefir útrymt þá Cananita, þeir sem járn vagna hafa og eru megtuger.

## 18. Capitule.

1. Og allur almúge Israels barna kom til samans í Silo, og uppreistu þar samkundu-tialldbúdena, og landed var þeim undergefed,

2. Enn þar voru þá enn siø ættkvísler Israels barna, sem þeir høfdu enn þá eigi útskipt þeirra erfda part.

3. Og Josua sagde til Israels barna: því erud þer so leinge ómennsku fuller, ad þer fared eigi af stad, ad inntaka landed, þad sem Drottinn ydra fedra Gud gaf ydur?

4. Utveled ydur þriá Menn, af serhverre ættkvísl, so eg meige senda þá af stad, ad þeir meige tilreida sig og fara í gegnum landed, og uppskrifa þad epter þeirra erfda portum, og koma so til mín aptur.

5. Skipted landenu í siø parta; Juda skal blífa í sínu landamerke, á þá sydre sídu, og Josephs hús skal blífa í sínu landamerke í mót nordre.

6. Enn þer skulud upp skrifa þá siø parta í landenu, og færed mer þad hingad, so vil eg leggia á hlute fyrer Drottni vorum Gude.

7. Því ad Levitarner hafa engann part á medal ydar, helldur er Drottins kennemannsskapur þeirra arfleifd. Gad og Ruben, og hálfpartur af Manasse ætt, hafa teked sinn hlut, hinumeigenn Jordanar, á mót austre, sem Moses Drottins þenare gaf þeim.

8. Þa tóku mennerner sig upp ad fara af stad. Og Josua bifalade þeim ad fara af stad, og uppskrifa landed, og sagde: fared og reised í gegnum landed, og skrifed þad upp, og komed til mín aptur, so eg meige her í Silo, kasta ydar hlutkeste fyrer Drottni.

9. Sídan fóru mennerner af stad, og gengu í gegnum landed, og uppskrifudu þad á eitt bref, í siø parta, epter borgunum, og komu til Josua í herbúdernar í Silo.

10. So kastade Josua hlutkeste millum þeirra fyrer Drottni í Silo, og útskipte landenu þar á millum Israelis barna, hverum sitt hlutskipte.

11. Og hlutkeste Benjamins barna ættkvíslar fell epter þeirra ætt, og landamerke þeirra hlutkestis geck út á millum barna Judæ, og Joseps barna,

12. Og þeirra landamerke voru í horned á mót nordre fra Jordan, og gengu af nordre upp hiá Jericho sídu, og kemur þar fra í vestur upp til fiallanna, og gengur út til endemerkur Beth Aven.

13. Og gengur þar frá til Lus upp, til sídu hiá Lus, mót sudre, þad er Bet El, og liggur ofann til Ataroth Adar, hiá fiallenu sem liggur í sudur, upp til nedra Beth Horon.

14. Sídann beyger þad sig, og snyr ser til hornsins í vestur, sudur fra fiallenu, hvert ed liggur í mót sudre, þvert yfer frá Beth Horen, og endast ved Kiriath Baal, þad er Kiriath Jearim, stadur Judæ barna, þad er þad vestra hornid.

15. Enn þad horn mót sudre er fra Kiriath Jearim, og gengur út í vestur, og kemur út til Nephthoah vatns brunns.

16. Og gengur nidur til enda fiallsins, sem liggur þvert yfer frá Hinnam sonar dal, hver ed liggur í dal Raphaim, mót nordre, og gengur þadann nidur í mót sudre, midt í gegnum Hinnam dal, vid sídu þeirra Jebusita, og þar frá út til brunns Rogel.

17. Og dregur sig fra nordre, og kemur út til En Semes, og hleypur út til Geliloth, sem liggur upp epter, þvert yfer fra Adumim, og gengur nidur til Bohens Rubens sonar Steins,

18. Og gengur til sídu, framm hiá slettlendenu, sem liggur í nordur, og kemur nidur fra þeirri slettu mörk.

19. Og geingur upp med sídunne hiá Beth Hagla, í nordur, og endast hiá tungunne þess sallta siόar, í nordur, hiá Jordanar sídu, í sudur átt, þetta er þad sydra landamerke.

20. Enn Jordan skal vera ender á því eystra (lands) horne. Þetta er Benjamins barna erfda partur, í þeirra landamerkium, rett umkring, medal þeirra ættar.

21. Þessar eru borger Benjamins barna kinkvísla, á medal þeirra ættar, Jericho, Beth Hagla, Emek Keziz,

22. Beth Araba, Zemaraim, Beth El,

23. Avin, Hapara, Ophra,

24. Kaphar Amonai, Aphni, Gaba, þad eru tolf borger med þeirra þorpum,

25. Gibeon, Rama, Beeroth,

26. Mizpe, Kaphira, Moza,

27. Rekem Jerpeel, Tharecala,

28. Zela, Eleph, og þeir Jebusitar, þad er Jerusalem, Gibeath, Kiriath, fiortan borger med þeirra þorpum, þetta er Benjamins barna erfda partur í þeirra ætt.

## 19. Capitule.

1. Epter þetta fell sá annar hlutur ættkvíslar Simeonis barna, epter þeirra ætt, og þeirra erfdahlute var medal erfdahluta Judæ barna,

2. Og þeir feingu til erfdar, Ber Seba, Seba, Molada,

3. Hazar Sual, Bala, Azem,

4. El Tholad, Bethul, Harma,

5. Ziklag, Beth Marcaboth, Hazar Sussa,
6. Beth Lebaoth, Saruhen, þad eru þrettan borger, og þeirra þorp.
7. Ain, Rimon, Ether, Asan, þad eru fiorar borger, og þeirra þorp.
8. Þar til øll þau þorp sem liggia umkring þessar borger, inn til Baalath Beer Ramath, mót sudre. Þetta er erfda partur Simeons barna ættkvíslar í þeirra ættum.
9. Þviad Simeons barna erfda hlute er á millum Judæ barna parts þviad Judæ barna erfda hlute var þeim offtor, þar fyrer erfdu børn Simeons á medal þeirra erfdahlutar.
10. Sá hinn þridi hlutur fell Sebulons børnum, epter þeirra ættum; landamerke þeirra erfda parts var til Sarid,
11. Og gengur upp í vestur til Marcala, og tekur inn til Dabaseth, og tekur til þess lækar sem hleypur til Jakneam.
12. Og snyr ser fra Sarid mót austre, inn til Cisloth Thabor landamerkia, og hleypur út til Dabrath, og nær upp til Japhia.
13. Og þar fra í austur, i gegnum Githa, Hepher, Itha, Kazin, og kemur út í mót Rimon Mithoar, og Nea,
14. Og gengur nordann í kring til Nathon, og endest í Jephthah Els dal,
15. Katath, Nahalal, Simron, Jedeala, og Beth Lehem, þad eru tolf stader med þeirra þorpum,
16. Þetta er Sebulons barna erfda partur í þeirra ættum, þad eru þeirra stader og þorp.
17. Hinn fiorde hlutur fell Isaschars børnum, epter þeirra ættum,
18. Og þeirra landamerke var Jesreel, Chesulloth, Sunnem,
19. Hapharaim, Sion, Anaharath,
20. Rabith, Kiseon, Abez,
21. Remeth, Engannem, Enhada, Beth Pazez,
22. Og tekur allt til Thabor, Saha Zima, Beth Semes, og hennar ender er hiá Jordan, sextan stader, og þeirra þorp,
23. Þetta er Isaschars barna ættkvíslar erfda partur, í þeirra ættum, stødum og þorpum.
24. Hinn fimmte hlutur fell Assers børnum, epter þeirra ættum,
25. Og þeirra landamerke var Helkath, Hali, Beten, Achsaph,
26. Ala Melech, Amead. Miseal, og tekur út til Carmel, hiá hafenu, og til Sihor Libnath,
27. Og snyr ser í austur mót Beth Dagon, og tekur ad Sebulon, og til Jephthah Els dals mót nordre. Beth Emech, Negiel, og gengur út til Chabul, á þá vinstre sídu,
28. Ebron, Rehob, Hamon, Kana, til þeirrar storu Zidon.
29. Og snyr ser upp mót Rama, til þess fasta stadar Zor, og snyr ser til Hossa, og endast vid hafed, epter þeim mæler til Achsib,
30. Uma, Aphek, Rehob, tvær og tuttugu borger, og þeirra þorp,
31. Og þetta er Assers barna erfda hlutur, í þeirra ættum, borgum, og þorpum.
32. Enn siøtte hlutur fell Nephthali børnum, í þeirra ættum.
33. Og þeirra landamerke voru fra Heleph, Elon, gegnum Zaenaunim, Adami Nekeb, Jabne El, inn til Lakum, og endast hiá Jordan.
34. Og snyr ser mót vestre, til Asnoth Thabor, og gengur þar frá, út til Hukok, og tekur í sudur til Sebulon, og til Asser mót vestre, og til Juda, hiá Jordan mót austre,
35. Og hefir fasta stade, Zidim, Zer, Hamath, Rakath, Chinnareth,

36. Adama, Rama, Hazor,
37. Kedes, Edrei, En Hazor,
38. Jereon, Migdal El, Harem, Beth Anath, Beth Sames, nítian stader, og þeirra þorp,
39. Þetta er Nephthali barna ættkvíslar erfda partur, í þeirra ættum, stødum, og þorpum.
40. Hinn siøunde hlutur fell ættkvísl Dans barna, epter þeirra ættum,
41. Og þeirra arfleifdar landamerke var, Zareah, Esthaol, Jisames,
42. Saelabbim, Aialon, Jethla,
43. Elon, Thimnatha, Ekron,
44. Eltheke, Gibethon, Baalath,
45. Jehud, BneBarak, Gath Rimon,
46. MeJarkon, Rakon, med þeim landamerkium mót Japho, og þar endast landamerke barna Dans,
47. Og Dans børn fóru upp ad strída imót Lesem, og unnu, og slóu hana med sverds eggium, og inntóku borgena, og bigggu í henne, og kølludu hana Dan, epter þeirra fødurs nafne,
48. Og þetta er erfdahlute Dans barna kinkvíslar, í þeirra ættum, stødum, og þorpum.
49. Enn sem þeir hofdu útskipt landenu, med sínum ummerkium, þá gáfu Jsraels børn Josua, syne Nuns, einn erfda hlut á medal þeirra.
50. Og þeir gáfu hønum þann stad epter Drottins bifalningu, sem hann gyrntest, sem var Thimnath Serah á Ephraims fialle. Þar byggde hann stadenn, og bió þar.
51. Þesser eru þeir erfdahluter sem Eleasar prestur, og Josua, son Nuns, og þeir ædstu fedur á medal ættkvíslanna skiptu med hlutfalle á medal Jsraels barna, í Silo, fyrer Drottni, fyrer samkunduftialldbúdarennar dyrum, og so fullkomnudust þesse landsins skipte.

## 20. Capitule.

1. Drottinn talade vid Josua, og sagde:
2. Seig þú til Jsraels barna: gefed frelsisstade á medal ydar, um hvera eg talade til ydar fyrer Mosen,
3. Þangad sem einn manuslagare má flya, sá sem nockurn slær í hel óviliande, og óvitande, so þeir meige vera fríir á millum ydar fyrer blódhegnaranum.
4. Og sá sem flyr til einhvers þeirra stada, hann skal standa fyrer utann stadar ported, og opinberá þar sína søk, fyrer ølldungunum stadarins, sídan skulu þeir taka hann inn í stadenn til sín, og gefá hønum rúm, svo hann meige búa hiá þeim.
5. Og þá blodhegnarenn fer epter hønum, þá skulu þeir eigi frammselia þennann veganda í hans hendur, fyrst hann sló sinn náunga íhel óvitande, og var eigi ádur hans óvinur.
6. So skal hann búa í þeim samá stad, þar til ad hann hefir staded til retta fyrer almúganum, þar til sá ædste prestur andast, sem þá er þann sama tíma, epter þad skal vegandenn koma í sinn stad aptur, og til síns húss, til þess stadar sem hann ádur fráflúde.
7. So helgudu þeir Kedes í Galilea, á fialle Nephthali, og Sechem á fialle Ephraim, og Kiriath Arba, þad er Hebron, a fiallenu Juda.
8. Og hinumeigenn Jordanar, austur fra Jericho, gáfu þeir Bezer í eydemørku, á slettlendenu, af ættkvísl Ruben, og Ramoth í Gilead, af ættkvísl Gad, og Golan í Basan, af ættkvísl Manasse.

9. Þesser voru þeir stader sem skickader voru fyrer oll Jsraels børn, og so fyrer þá útlendu sem biuggu á millum þeirra, so ad sá skylldе flya til einhvers af þeim, sem nockurn hafde sleiged íhel óforvarande, so hann skylldе eigi deya, fyrer blódhegnaranum, fyrr enn hann hafde staded fyrer almúganum.

## 21. Capitule.

1. Þá gengu þeir ædstu fedur á medal Levitanna framm, til Eleasar prests, og til Josua, sonar Nuns, og til þeirra ypperstu fedranna, medal ættkvísla Jsraels barna,

2. Og tøludu vid þá í Silo, í landenu Canaan, og søgdu: Drottinn baud fyrer Mosen, ad oss skylldu gefast stader ad búa í, og þeirra forstader fyrer vort kvikfe.

3. Þá gáfu Jsraels børn Levitunum af sínu arfskipte, so sem Drottinn hafde boded, þessa stade, og þeirra forstade.

4. So fell hluturenn uppá Kahathiters ætt, og børn Arons prests, af Levitunum, feingu þrettan stade, med hlutfalle, af Judæ ættkvísl, og af Benjamins ættkvísl.

5. Enn þau ønnur børn Kahaths, af somu ætt, fengu ad hlutfalle tíu stade, af Ephraims ættkvísl, af ættkvísl Dans, og af hálfre Manasse ættkvísl.

6. Enn Gersons børn af somu ætt, fengu epter hlutfalle, þrettan stade, af Kine Jsaschar, af kinkvísl Asser, og af kinkvísl Nephthali, og af hálfre kinkvísl Manasse í Basan.

7. Og Merari barna ætt feck tolf stade, af ættkvísl Ruben, af ættkvísl Gad, og af ættkvísl Sebulon.

8. Þá gáfu Jsraels børn Levitunum, epter hlutfalle þessa stade, og þeirra forstade, sem Drottinn hafde boded fyrer Mosen.

9. Af ættkvísl Judæ barna, og af ættkvísl barna Simeons, gáfu þeir þessa stade, sem þeir nafnkenndu,

10. Arons børnum Kahathita ættar, af børnum Levi, þviad sá fyrste hlutur var þeirra.

11. So gáfu þeir þeim Kiriath Arba, sem heyrde Enaks fødur til, þad er Hebron, á fialle Judæ, og hennar forstade kringum hana.

12. Og þeir gáfu Caleb, syne Jephunne, Akrana, og þau þorp í kringum stadenn til eignar.

13. So gáfu þeir børnum Arons prests, þá manndráparanna frístade, Hebron, og hennar forstade, Libna, og hennar forstade,

14. Jathir, og hennar forstade, Esthmoa, og hennar forstade,

15. Holon, og hennar forstade, Debir, og hennar forstade,

16. Ain, og hennar forstade, Juta, og hennar forstade, Beth Semes, og hennar forstade, níu stade af þessum tveimur ættkvíslum.

17. Enn þeir gáfu þeim fiorar borger af Benjamins ættkvísl, Gibeon, og hennar forstade, Geba, og hennar forstade,

18. Anathoth, og hennar forstade Almon, og hennar forstade.

19. So ad aller stader barna Arons prests, voru þrettan med sínum forstødum.

20. Enn þeir ádrer Kahaths barna frændur af Levitunum, fengu ad sínu hlutfalle fiora stade, af Ephraims ættkvísl,

21. Og þeir gáfu þeim frelsis stade manslagaranna, Sechem, og hennar forstade, á Ephraims fialle, Gefer og hennar forstade,

22. Kibzaim, og hennar forstade, Beth Horon, og hennar forstade.

23. Af ætt Dans fiora stade, Eltheke, og hennar forstade, Gibthon, og hennar forstade,

24. Aialon, og hennar forstade, Gath Rimon, og hennar forstade.

25. Af hálfum parte Manasse ættkvíslar tvo stade, Thaenach, og hennar forstade, Gath Rimon, og hennar forstade.

26. So ad aller þeir stader þeirrar annara Kahaths barna ættar voru tíu, med þeirra forstødum.

27. Og þeir gáfu børnum Gerson, af ættkvísl Levi, tvo stade, af hálfum parte Manasse ættkvíslar þann frístadenn fyrer mannslagarana, Golan í Basan, og hennar forstade, Besthera, og hennar forstade.

28. Af Isaschar ættkvísl fiora stade, Kision, og hennar forstade, Dabrath, og hennar forstade.

29. Jarmuth, og hennar forstade, En Gannim, og hennar forstade.

30. Af ættkvísl Asser fiora stade, Miseal, og hennar forstade, Abdon, og hennar forstade,

31. Helkath, og hennar forstade, Rehob og hennar forstade.

32. Af ættkvísl Nephthali þriá stade, þann frelsis stad Kedes, fyrer manndraparana, í Galilea, og hennar forstade, Hamoth Dor, og hennar forstade, Karthan, og hennar forstade.

33. So ad aller þeir Gersonita ættur stader voru þrettan, med sínum forstødum.

34. Enn þeir adrer Levitar, sem voru af ætt Merari barna, þeim voru gefner fiorer stader, af ættkvísl Sebulon, Jakneam, og hennar forstader, Kartha, og hennar forstader,

35. Dimna, og hennar forstader, Nahalal, og hennar forstader,

36. Af ættkvísl Ruben fiórer stader, Bezer, og hennar forstader, Jahza, og hennar forstader,

37. Kedemoth, og hennar forstader, Mephaath, og hennar forstader,

38. Af kinkvísl Gad fiórer stader, sá frístadur mannslagaranna, Ramoth í Gilead, og hennar forstader, Mahanaim, og hennar forstader,

39. Hesbon, og hennar forstader, Jaeser med hennar forstødum.

40. So ad aller Merari barna stader, á millum þeirra ættar, af þeim ødrum Levitum, voru tolf, sem þeir fengu epter þeirra hlutfalle.

41. Aller Levitanna stader, á medal Israels barna arfs, voru átta og fiørutíu med sínum forstødum,

42. Og hver af þessum stødum hafde sinn forstad umhverfis sig, so einn sem annar.

43. So gaf Drottinn Israel allt þad land sem hann hafde svared ad gefa þeirra forfedrum, og þeir eignudust þad, og byggdu þar.

44. Og Drottinn gaf þeim hvíld allt umkring fyrer øllum, so sem hann fór þeirra forfedrum, og eingenn af þeirra óvinum gat stadest þeim í mót, helldur gaf hann alla þeirra óvine í þeirra hendur.

45. Og þar brást eigi neitt af øllu þvi góda sem Drottinn hafde lofad Israels húse, þad kom (framm) allt samann.

## 22. Capitule.

1. Þá kallade Josua þá Rubenita, og þá Gaddita, og hálfpartinn af Manasse ættkvísl,

2. Og sagde til þeirra: Þer hafed hallded allt þad sem Moses Guds þenare baud ydur, og hafed hlydt minne raustu, í øllu þvi sem eg hefe boded ydur.

3. Þer hafed og eigi yfergefed ydra brædur í langann tíma, allt til þessa dags, og hafed hallded ydur epter Drottins ydars Guds boda

4. Og nú søkum þess, ad Drottinn ydar Gud hefir gefed ydrum brædrum hvíld, sem hann þeim lofade, þá snúid ydur nu aptur, og ferdist af stad til ydra tialldbúda, í ydart erfda land, sem Moses þenare Drottins gaf ydur, hinumeigenn Jordanar.

5. Enn alleinasta halldeð þad med (allre gætne, ad þer gered epter þeim bodordum og løgum sem Moses þenare Guds baud ydur, ad þer elsked Drottinn ydar Gud, og gang ed á øllum hans vegum, og geymed hans bodord, og hallded ydur ad hønum, og þioned hønum af øllu hiarta, og af allre sálu.

6. So blessade Josua þá, og let þá fara, og þeir fóru í burt til sinna tialldbúda

7. Moses hafde gefed hálfum kinþætte Manasse arf í Basan, þeim ødrum helminge gaf Josua þessumeigenn Jordanar, í vestur, á medal þeirra brædra. Og þá hann let þá fara til sinna tialldbuda, og hafde blessad þá,

8. Sagde hann til þeirra: Þer komed heim aptur til ydra tialldbuda med miklum audæfum, med miøg miked fe, silfur, gull, kopar, járn, og klæde, so útskipted nu þessu hinu sama ydra óvina herfange med ydrum brædrum.

9. So sneru þeir Rubenitar, Gadditar, og hálf Manasse ættkvísl aptur, og gengu fra Israels børnum út af Silo, hver ad liggur í Canaans lande, ad ferdast í land Gilead, til síns erfdalands, hvert þeir høfdu feinged ad erfd, epter Drottins bifalningu fyrer Mosen.

10. Enn þá þeir komu til landamerkianna hiá Jordan, sem liggia í Canaans lande, þá byggdu þeir enu sømu Rubenitar, Gadditar, og hálf Manasse ættkvísl, þar hiá Jordan, eitt miked prydelegt alltare.

11. Enn þá Israels børn þad heyrdu, søgdu þeir: siáed! Rubens børn, Gads børn, og hálf Manasse ættkvísl, hafa byggt eitt alltare, gagnvart Canaans lande, hiá þeim landamerkum vid Jordan, á þessa sídu Israels barna.

12. Þá søfnudust þeir saman í Silo, med øllum almúganum, so ad þeir færu upp í móte þeim med Her.

13. Og sendu til þeirra, í Gilead land, Phinees son Eleasars prests.

14. Og med hønum tíu af þeim ædstu høfdingium af þeirra fedra húsum, einn af hverre Israels ættkvísl.

15. Og sem þeir komu til þeirra í Gilead land, tøludu þeir til þeirra, og søgdu:

16. Allur Drottins almúge lætur so seigia ydur. Hvernenn hafed þer so syndgast í móte Israels Gude? ad þer snerud ydur í dag frá Drottne, med því, ad þer byggdud ydur eitt alltare, so þer falled frá Drottni,

17. Er Peors misgerd oss eflett? af hverre ver erum eigi enn hreinsader á þessum deige; og þar kom ein plága medal Drottins almúga,

18. Og þer snúed ydur í dag frá veige Drottins, og erud fallner á þessum deige fra Drottni, so hann í dag, edur á morgun reidest uppá allann Israels søfnud.

19. Ef ad ydur þyker, ad ydart erfda land se óhreint, þá komed yfer í þetta land, sem Drottinn hefir, þar sem Drottins tialldbúd stendur, og taked ydarn erfdar part á medal vor, og falled hverke frá Drottni, ne fra oss, so ad þer bygged ydur alltare, annad helldur enn Drottins vors Guds alltare.

20. Syndgadest eigi Achan, sonur Serachs, á því bannfærda, og þar kom reide yfer allann Israels søfn=

ud, so hann fyrerförst eigi alleinn fyrer sinn misgerning.

21. Þá svaurudu børn Rubens, og børn Gads, og hálf Manasse kinkvísl, og sögdu til høfdanna og høftingia Israel:

22. Drottinn sá sterke Gud, Drottinn sá sterke Gud veit þad, so veit þad Israel, ef føllum ver frá, eda misgerum ver í mót Drottni, þá hialpe hann oss eigi á þessum deige,

23. Ef ver bygdum þad alltare þar fyrer; ad ver vilium snúa oss frá Drottni, ad offra brenneoffre, edur matoffre, þar yfer, eda ad færa þacklætisoffur þar á fyrer Drottne, þá útkrefe hann þess,

24. Og høfum ver eigi helldur þad gert fyrer áhuga saker þess hlutar, seigiande: ydar børn meiga seigia til vorra barna: í dag, edur á morgun, hvad hafed þer ad gera med Drottins Israels Gud?

25. Drottinn hefir sett Jordan til landamerkia á medal vor og ydar, Rubens og Gads barna, þer hafed ecke hlutskipte í Drottne, þar med mættu ydar børn vísa vorum børnum fra ótta Drottins.

26. Þvi sögdum ver, látum oss byggia eitt alltare, eigi til offurs, eige helldur til brennefórna,

27. Helldur ad þad se einn vitnisbúrdur á millum ydar og vor, og vorra epterkomenda, ad ver meigum gera Drottne þionustu fyrer hønum, med vorum brennefórnum, þackar offre, og ødrum offrum, so ad ydar børn þurfe eigi ad seigia til vorra barna, í dag, eda á morgun: þer hafed ecke hlutskipte í Drottni.

28. Nær þeir vilia so seigia til vor, eda til vorra epterkomenda, í dag, edur á morgun, þá meiged þer seigia: siáed líking Drottins alltaris, sem vorer forfedur gerdu, eigi til offurs, ne til brennefórnar, helldur til eins vitnisbúrdar á millum vor og ydar,

29. Þad se langt fra oss, ad ver skylldum falla fra Drottni, ad ver villdum snúa oss í dag fra hønum, og uppbyggia eitt alltare til brennefórnar, og til matoffurs, og til annara fórna, fyrer utann Drottins vors Guds alltare, hvert ed stendur fyrer hans tialldbúd.

30. Enn þá Phinees prestur, og þeir yppurstu yfer almúganum, høfdingiar í Israel, sem voru med hønum, heyrdu þesse ord, sem børn Rubens, og Gads, og Manasse, sögdu, þá líkudu þau þeim vel.

31. Og Phinees, sonur Eleásar prests, sagde til Ruben, Gads, og Manasse barna: í dag merkium ver, ad Drottinn er á medal vor, ad þer hafed eigi syndgad á móte Drottni í þessum gerninge, nú hafed þer frelsad Israels børn af hende Drottins.

32. So ferdadest Phinees, sonur prestsins Eleasars, og þeir yppurstu af lande Gilead, fra Rubens og Gads børnum, yferum aptur í Canaans land, til Israels barna, og sögdu þeim þetta.

33. Israels børnum þocknadest þad vel, ag lofudu Gud Israels barna, og sögdu eigi framarmeir, ad þeir villdu ferdast upp í móte þeim med Hérlid, til ad fordiarfa þad land sem børn Rubens og Gads bingguu,

34. Og børn Rubens og Gads kølludu þad alltare, ad þad se vitnisbúrdur millum vor, ad Drottinn er Gud.

## 23. Capitule.

1. Og løngum tíma þar epter, þá Drottinn hafde komed Israel í kirrder fyrer øllum þeirra óvinum allt í kring, og Josua var nú ordenn gamall, og vel alldradur,

2. Þá kallade hann saman allann Jsrael, og þeirra olldunga, høfudsmenn, domendur, og embættismenn og sagde til þeirra: eg em nú gamall, og vel vid olldur,

3. Og þer hafed sed allt hvad Drottinn ydar Gud hefir gert vid þetta folk her fyrer ydur, þviad Drottinn ydar Gud hefir sialfur strídt fyrer ydur.

4. Siáed, eg hefe skipt med ydur þvi folke sem epter er, med hlutkeste, serhverre kinkvísl sinn arfhluta, frá Jordan, og øllum þiódum, sem eg hefe utrymt, og vestur, allt til þess stóra hafs,

5. Og Drottinn ydar Gud mun úthrinda þeim fyrer ydur, og utryma þá frá ydur, so þer inntaked þeirra land, so sem Drottinn ydar Gud hefir lofad ydur.

6. So vered nú hughraustir, so ad þer halldeð og gered allt þad sem skrifad stendur í Moses løgmáls bók, so þer víked þar ei frá, hverke til hægre, ne til vinstre handar.

7. Uppá þad, ad þer komed eigi á medal þessa folks, sem nu enn er epter hiá ydur, og ad þer eigi hugsed, eda svered vid þeirra afguda nafn, eigi helldur þióned þeim, ne bided til þeirra,

8. Helldur halldeð ydur fast vid Drottinn ydar Gud, so sem þer hafed gert til þessa dags,

9. So mun Drottinn útdrífa stórt og megtugt folk fyrer ydur, og engenn hefir stadeð ímóte ydur, inn til þessa dags.

10. Einn af ydur skal ellta þusund, þvi Drottinn ydar Gud strídet fyrer ydur, so sem hann hefir sagt ydur.

11. Þar fyrer geymed med gætne ydrar sáler, ad þer elsked Drottinn ydar Gud.

12. Enn ef ad þer snúed ydur, og halldeð ydur ad þvi folke, sem nú epter er, og gered hiuskap vid þad, so ad þer komed á millum þeirra, og þeir á medal ydar,

13. Þá vited, ad Drottinn ydar Gud mun eigi framar útryma allt þetta folk, fyrer ydur, helldur skal þad verda ydur ad snøru, og ad nete, og ad svipu á ydar sydur, og ad þyrnum í ydar augu, þar til hann eydeleggur ydur, af þvi góda lande, sem Drottinn ydar Gud hefir gefed ydur.

14. Siáed! eg geing í dag í burt, so sem oll veralldinn, og þer skulud vita af ollu hiarta, og af allre sálu, ad þar hefir eigi eitt ord brugdest, af ollu þvi gódu sem Drottinn ydar Gud hefir lofad ydur,

15. Þad er alltsamann frammkomed, og eigi neitt ávantad. Og líka sem þer hafed fenged allt þad goda, sem Drottinn ydar Gud hefir lofad ydur, so mun Drottinn láta allt vondt koma yfer ydur, þar til hann afmáer ydur af þessu góda lande, sem Drottinn ydar Gud gaf ydur.

16. Ef þer yfertroded Drottins ydars Guds sáttmála, þann hann baud ydur, og fared burt og þióned annarlegum Gudum, og tilbided þá ad reide Drottins gremst yfer ydur, og fyrerkemur ydur snarlega af þvi goda lande, sem hann hefir gefed ydur.

## 24. Capitule.

1. Josua safnade samann øllum Jsraels kinkvíslum til Sichem, og kallade þá hina ellstu af Jsrael, þá ædstu høfudsmenn, domendur og embættismenn,

2. Og sem þeir voru frammgegner fyrer Gud, þá sagde hann til alls folksins: Drottinn Jsraels Gud seiger so: ydrer fedur biuggu fordum daga hinumeigenn vatnsins,

Tarah, fader Abrahams og Nahors, og þiónuðu annarlegum Gudum.
3. Þá tók eg ydar fødur Abraham hinumeigenn vatnsins, og let hann ferdast um allt Canaans land og jók hans sæde,
4. Og eg gaf hønum Isaac. Og Isaac gaf eg Jacob, og Esau. Og eg gaf Esau fiallbygder Seirs, ad eignast, enn Jacob og hans børn fóru ófann í Egyptaland.,
5 Þá senda eg Mosen og Aaron, og plágade Egyptaland, so sem eg gerde á medal þeirra,
6. Sídann leidda eg ydur, og ydra forfedur af Egyptalande, og þann tíma sem þer komud til hafsins, og þeir Egyptsku veittu epterfør ydrum forfedrum, med vognum og riddara lide, allt til þess rauda hafs,
7. Þá kølludu þeir til Drottins: hann sette eitt mirkur á mille ydar og þeirra Egyptsku, og leidde hafed yfer þá, og hulde þá. Og ydar augu hafa sed þad sem eg gerde í Egyptalande, og þer biuggud í eydemørku langa tíma.
8. Og eg færda ydur í land þeirra Amorita, sem biuggu hinnmegenn Jordanar, og þá þeir striddu ímóte ydur, gaf eg þá í ydrar hendur, so þer eignudust þeirra land, og eg eydelagde þá fyrer ydur.
9. Epter þad upptók sig Balak, sonur Zipors, kongur Moabita, og hellt bardaga vid Israel, og hann sende af stad, og let kalla Bileam son Beors, ad hann skyllde bølva ydur.
10. Enn eg villde eigi heyra hann, og hann blessade ydur, og eg frelsade ydur af hans høndum.
11. Og þá þer gengud yfer Jordan, og komud til Jericho, þá børdust borgarmenn Jericho ímóte ydur, þeir Amoritar, Pherefitar, Cananitar, Hethitar, Girgositar, Hevitar, og Jebusitar, enn eg gaf þá í ydar hendur,
12. Og eg sende Geithamsá fyrer ydur, þeir útráku fyrer ydur þá tvo konga Amoritarum, eigi fyrer þitt sverd, eda fyrer þinn boga,
13. Og eg gaf ydur eitt land uppá hvert þer hafed eige erfidad, og þær borger sem þer hafed eigi uppbyggt, so þer skylldud búa þar í, og eta af þeim víngørdum, og vidsmiørs gordum, sem þer høfdud eigi plantad.
14. So óttest nú Drottinn, og þióned hønum trulega, og alvarlega, og láted þá afgude fara, hverium ad ydrer fedur þiónudu hinumeigenn vatnsins, og í Egyptalande, og þióned Drottni.
15. Enn þócknist ydur eigi ad þióna Drottni, þá útveled nú á þessum deige, hverum þer viled þióna, þeim Gudum sem ydrer fedur þiónudu á hina sídu vatnsins, eda Gudum þeirra Amorita, í hverra lande þer búed, enn eg, og mitt hús, vilum þióna Drottni.
16. Þá svarade folked og sagde: þad se langt frá oss, ad ver yfergefum Drottinn, og þiónum ødrum Gudum,
17. Þvi Drottinn vor Gud færde oss og vora fedur af Egyptalande, af þvi þrældoms húse, og gerde so stór tákn fyrer vorum augum, og vardveitte oss á øllum þeim vege sem ver reistum, og á medal alls þess folks, sem ver gengum í gegnum,
18. Og hefir úthrundid øllu Amorita folke fyrer oss, sem bió í landenu, þar fyrer vilum ver og þióna Drottni, þvi hann er vor Gud.
19. Josua sagde til folksins: eigi kunned þer ad þióna Drottni, þvi ad hann er einn hellagur Gud, einn

vandláturGud, sá ad hann eige hlífer ydrum yfertrodslum og syndum,

20. Enn ef þer yfergefed Drottinn, og þiónet ødrum Gudum, þá mun hann snúa ser, og plága ydur, og fyrerkoma ydur, epter þvi sem hann hefir gert ydur hid góda.

21. Folked sagde til Josua: eigi so, helldur vilum ver þióna Drottni.

22. Þá sagde Josua til folksins, þer erud vitne yfer ydur, ad þer hafed útvaled ydur Drottinn, honum ad þióna. Þeir søgdu, já:

23. Þá kasted nú burt fra ydur annarlegum Gudum, sem á millum ydar eru, og hneiged ydar hiørtu til Drottins Israels Guds.

24. Og folked sagde til Josua: ver vilum þióna Drottni vorum Gude, og hlyda hans røddu.

25. So gerde Josua á þeim sama deige eitt sáttmal vid folked, og sette þeim fyrer løgmál og rettinde í Sichem.

26. Og Josua skrifade allt þetta í Guds løgmáls bok, og tók einn stórann stein, og reiste hann upp í þeim sama stad, under einne eik, sem var hiá Drottins helgedøme,

27. Og sagde til alls folksins: siáed! þesse steinn skal vera vitnisburdur á millum vor, þvi hann heyrde øll Drottins ord, sem hann hefir talad vid oss, og hann skal vera vitnisburdur yfer ydur, so þer skulud eigi afneita ydrum Gude.

28. So let Josua folked fara, hvern til sinnar arfleifdar.

29. Og þad skede so, epter þad þetta var sked, ad Josua, sonur Nuns, þenare Drottins, andadest, þá hann var hundrad og tíu ára gamall,

30. Og þeir jørdudu hann í landamerkium síns arfhluta, í Timnath Serah, sem liggur á fialle Ephraim, nordan fra fialle Gaas.

31. Og Israel þiónade Drottni so leinge sem Josua lifde, ogølldungarner, sem leinge lifdu epter Josua, hverer ad vissu olla Drottins gerninga, sem hann hafde gert vid Israel.

32. Og Josephs bein, sem Israels børn høfdu fært af Egyptalande, grófu þeir í Sichem, á þeim akurs parte sem Jacob keypte af børnum Hemors, fødur Sichems, fyrer hundrad silfurpeninga, og vard erfdahlutur Josephs barna.

33. Eleasar, sonur Arons, andadest og einnen, og þeir jørdudu hann í Gibea, sem heyrde til hans syne Phineas, sem hønum var gefenn, á fialle Ephraim.

Ender Bókar Josua.

# Domaranna Bok.

## 1. Capitule.

1. Epter andlát Josua, spurdu Israels børn Drottinn, og søgdu: hver á medal vor skal fyrstur heya stríd á móte þeim Cananitum?

2. Drottinn svarade: Juda skal þad heya. Siáed! eg hefe gefed landed í hans hendur.

3. Þá sagde Juda til síns brodurs Simeon, far med mer í mitt hlutskipte, og látum oss beriast vid Cananitana, sídann vil eg reisa med þer aptur í þitt hlutskipte. Simeon fór so med hønum.

4. Og sem Juda fór nú upp, þá gaf Drottinn þá Cananita, og Pheresita, í þeirra hendur, og þeir slóu í Besek tíu þusund manns.

5. Og þeir fundu Adoni Besek,

í Besek, og bordust vid hann, og slóu þá Cananita, og Pheresita.

6. Enn Adoni Besek flyde, og þeir sóktu epter honum, og þá þeir nádu honum, hinggu þeir af honum hans þumalsingur og þumaltær, af hond um og fótum,

7. Þá sagde Adoni Besek, siotíu kongar, med afhoggnum þumaltám og þumalsíngrum á hondum og fótum, tíndu upp under mínu borde; líka sem eg hefe gert, so hefir Gud endurgolled mer. Og þeir fluttu hann til Jerusalem, þar andadest hann.

8. Enn Juda born strídu upp á Jerusalem, og unnu hana, og slóu hana med sverds eggum, og logdu elld í borgena,

9. Þar epter ferdudust Juda born ófann, til ad beriast vid þá Cananita, sem bingqu á fiallbygdum, og í sudur átt, og dolunum.

10. Og Juda fór út ímót þeim Cananitum, sem biuggu í Hebron (enn Hebron kalladist í fyrre tid Kiriath Arba) og sló Sesai, og Ahiman, og Thalmai.

11. Og hann ferdadest þadann mót þeim innbyggurum í Debir (enn Debir kalladest fordum tíd, Kiriath Sepher)

12. Og Caleb sagde: hver sem slær og vinnur Kiriath Sepher, þeim skal eg gefa mína dotter Achsa til eigenn kvinnu.

13. Þá vann Athniel, sonur Kenas, Calebs yngste broder hana, og hann gaf honum sína dotter Achsa til eigenn kvinnu.

14. Og þad skede so, þá hún ferdadest heim, var henne rádlagt, ad hún skyllde bidia eins akurs af sínum fodur, og hún fell af asnanum. Caleb sagde til hennar: hvad brestur þig?

15. Hún sagde: gef mer eina blessan, þviad þu hefir gefed mer eitt suduráttar land, gef mer vokvafullt land. Þá gaf hann henne vokvafulla jord (bæde) ad ófann og nedan.

16. Og born Kenita, Moses mágs, fóru upp frá Palma stadnum, med bornum Juda, til Juda eydemerkur, sem liggur í sudur, móts vid stadenn Arad, þvi þeir voru burt farner ad búa á medal þess folks.

17. Enn Juda ferdadest af stad med sínum brodur Simeone, og þeir slóu þá Cananita í Zephat, og foreyddu þeim, og kolludu stadenn Harma.

18. Þar til vann Juda Gaza, med þvi sem henne fylgde, og Askalon, med þvi sem henne tilheyrer, og Ekron, med þvi sem henne tilheyrde.

19. Og Drottinn var med Juda, so ad hann inntók fiallbygdena, þviad þá gat hann eigi útdrifed sem í dolunum biuggu, þviad þeir hofdu járnvagna.

20. Og Caleb gáfu þeir Hebron, sem Moses hafde sagt, og hann útrymde þadann þriá sonu Enaks.

21. Enn born Benjamins útdrifu eigi þá Jebusita, sem biuggu í Jerusalem, helldur biuggu Jebusitar í Jerusalem, hiá Benjamins bornum, allt til þessa dags.

22. So og fóru born Josephs upp til Beth El, og Drottinn var med þeim.

23. Og þeir af Josephs húse niósnudu um Beth El (hver ed kalladest í fyrre tídenne Lus.)

24. Og vardhallds mennerner sáu einn Mann af stadnum ganga, og sogdu til hans: vísa þú oss hvar ver meigum komast í borgena, þá vilum ver syna þer miskun.

25. Enn sem hann hafde vísad þeim húar þeir máttu í stadenn koma, þá slóu þeir stadenn med sverds

eggum, enn þann Mann og alla hans ætt letu þeir fara.

26. Þá fór sá hinn same madur í land þeirra Hethita, og bygde einn stad, og kallade hann Lus, so kallast hann allt til þessa dags.

27. Og Manasse útrak eigi Beth Sean med hennar dætrum, eige helldur Thaenach med hennar dætrum, og eigi helldur junbyggiara í Dor med hennar dætrum, eigi helldur þá junbyggiara í Jebleam med hennar dætrum, og ei helldur þá sem biuggu í Megiddo med hennar dætrum. Og Cananitarner tóku til ad búa í því sama lande.

28. Enn sem Israel efldest ad stirk, þá gerde hann Cananitana skattgillda, og útdreif þá eigi.

29. Ephraim útdreif eigi helldur þá Cananita sem biuggu í Gazer, helldur biuggu Cananitar í bland þeirra í Gazer,

30. Sebulon útdreif og eigi helldur þá junbyggiara í Kitron og Nahalol, helldur biuggu Cananitar hiá þeim, og voru skattgillder.

31. Asser útdreif eigi helldur þá junbyggiara í Ako, eigi helldur þá junbyggiara í Zidon, í Ahelab, í Achsiib, í Helba, í Aphik, og í Rehob,

32. Helldur biuggu Assers Nidiar med þeim Cananitum sem biuggu í landenu, því þeir útrymdu þá eigi.

33. Nephthali útrymde eige þá junbyggiara í Beth Semes, ei helldur þá í Beth Anath, helldur biuggu þeir medal Cananita, sem biuggu í landenu, enn þeir í Beth Semes, og í Beth Anath urdu skattgillder.

34. Og þeir Amoritar þreyngdu Dans børnum uppá fialled, og leyfdu þeim eigi ad koma ófan í dallended,

35. Og þeir Amoritar tóku til ad búa á fiallenu Heres, í Aialon, og í Saalbim. Þó urdu þeim hendurnar af Josephs húse ófkungar, og urdu skattgillder.

36. Enn landamerke þeirra Amoritarum, voru þar sem upp er genged til Akrabbim, og fra steinenum og frá hædinne.

## 2. Capitule.

1. Þá kom eingell Drottins upp, fra Gilgal til Bochim, og sagde: eg hefe leidt ydur upp hingad úr Egyptalande, og fært ydur í það sem eg sór ydrum fedrum og sagde: ad eg villde alldrei yfergefa minn sáttmála vid ydur,

2. So ad þer skylldud engann sáttmála gera vid þessa lands jnnbyggiara, og þer skylldud sundurbrióta þeirra alltare. Enn þer hlyddud eigi minne raustu, því hafed þer þad gert?

3. Þá sagde eg og so: eige vil eg útryma þá fyrer ydur, so þeir verde ydur ad einnre snøru, og þeirra skúrgod ydur ad nete.

4. Og sem eingell Drottins hafde talad øll þesse ord til allra Israels barna, þá upphóf folked sína raust, og gret,

5. Þeir kølludu þann stad Bochim, og færdu Drottne fórner í þeim sama stad.

6. Því þá Josua hafde láted folked frá ser, og Israels børn voru af stad farenn, hver til sinnar arfleifdar, ad eignast landed,

7. Þá þiónade folked Drottni, so lenge sem Josua lifde, og þeir ellstu Menn, sem lenge lifdu epter Josua, og sed høfdu alla stora Drottins gerninga, sem hann hafde gert Israel.

8. Og sem Josua, sonur Nuns, Drottins þenare, var andadur, þá hann var hundrad og tíu ára gamall,

9. Jordudu þeir hann í Timnath Heres, í landamerkium síns erfda parts, á fiallenu Ephraim, í nordur frá þvi fialle Gaas.

10. Þá þeir aller, sem lifad høfdu á þeim tíma, høfdu safnast til sinna fedra, kom ein ønnur ætt upp epter þá, hver ad eigi þeckte Drottinn, ne helldur þau verk sem hann hafde gert vid Israel.

11. Þá gerdu Israels børn íllt fyrer Drottne, og þiónudu Baalim,

12. Og yfergáfu Drottinn Gud sinna fedra, hver þá hafde leidt af Egyptalande, og epterfylgdu annarlegum Gudum, þess folks Gudum, sem þiuggu í kringum þá, og tilbádu þá, og styggdu Drottinn.

13. Þvi þeir yfergáfu Drottinn æ og alltíd, enn þiónudu Baal og Astharoth.

14. So upptendradest þá Drottins reide yfer Israel, og hann gaf þá í þeirra hendur sem þá ræntu, ad þeir skylldu ræna frá þeim, og hann sellde þá í sinna óvina hendur þar í kring. Svo þeir gátu eigi framarmeir staded ímót sínum óvinum,

15. Helldur í hvern máta þeir villdu bera sig ad, þá var hønd Drottins í mót þeim, til ólucku, so sem Drottinn hafde sagt og svared þeim, og þeir þreyngdust hardlega.

16. Og þá Drottinn uppvakte þeim nú domendur, sem frelstu þá af ræningianna høndum,

17. Þá voru þeir eigi helldur þeim domendum hlyduger, helldur frømdu þeir hór med annarlegum Gudum, og tilbádu þá, og viku fliott af þeim veige sem þeirra fedur høfdu gengeð á, ad hlyda bodordum Drottins, og gerdu eigi sem þeir.

18. Og þá Drottinn uppvakte þeim domara, þá var Drottinn med domaronum, og hiálpade þeim af þeirra óvina høndum, so leinge sem sá domarenn lifde. Þvi Drottinn sá aumur á þeirra kveinan, yfer þeim sem þvingudu þá, og þreyngdu ad þeim.

19. Enn þegar sá domarenn deyde, þá sneru þeir sér og fordiørfudu sig meir enn þeirra fedur, so ad þeir fylgdu ødrum Gudum, ad þióna þeim, og tilbidia þá, þeir viku eigi af sínum asetninge, eigi helldur af sínu hardúdugu athæfe.

20. Og því uppkveiktest reide Drottins yfer Israel, ad hann sagde: søkum þess ad þetta folk hefir yfertródid minn sáttmála, sem eg hefi boded þeirra fedrum, og hlyder eigi minne raustu,

21. Þá vil eg her epter eigi útreka heidingiana, sem Josua let epter, þá hann deyde.

22. So ad eg vil reyna Israel med þeim, ef þeir vilia blífa á Herrans veige; og ganga þar á, sem þeirra fedur voru, eda eige.

23. So let Drottinn þessa heidingia blífa, ad hann útrymde þá eigi so snøggt, þá sem hann hafde eigi yfergefed í Josua hønd.

## 3. Capitule.

1. Þesser eru þeir heidingiar sem Drottinn let epter vera ad reyna med Israel, sem eigi par vissu af Canaans bardøgum,

2. Og ad Israels barna ættkvísler vissu og lærdu ad beriast, þeir sem ádur vissu þar eigi af,

3. Sem eru þeir fimm Philistea høfdingiar, og aller Cananitar, og Zidonitar, og Hevitar, sem biuggu hiá fiallenu Libanon, fra fialle Baal Hermon, allt til þess ad komed er ad Hemath.

4. Þesser sømu voru epter, so ad Israel skyllde reynast med þeim, so þad mætte opennbert verda, hvert

þeir villdu hlyda bodordum Drottins, sem hann hafde boded þeirra forfedrum, fyrer Mosen.

5. Þá Israels børn bjuggu so á medal Cananita, Hethita, Amorita, Pheresita, Hevita, og Jebusita,

6. Þá tóku þeir þeirra dætur ser til eiginkvenna, og gáfu þeirra sonum sínar dætur, þiónudu þeirra Gudum,

7. Og gerdu þad íllt var fyrer Drottni, og gleymdu Drottni þeirra Gude, og þiónudu Baalim, og skógarlundunum,

8. Þá uppvaktest reide Drottins yfer Israel, og hann sellde þá under hønd Cusan Risathaims, kongs í Mesopotamia, og Israels børn þiónudu Cusan Risathaim í átta ár.

9. Þá kolludu Israels børn til Drottins, og Drottinn uppvakte þeim einn frelsis Mann, sem þá frelsade, Athniel, son Kenas, hver ad var Calebs yngste broder,

10. Og ande Drottins var í hønum, og hann var domare í Israel, hann reiste út til stríds, og Drottinn gaf Cusan Risathaim, konginn af Syria, í hans hønd, so hans hønd var hønum yfersterkare.

11. So var landed í kirrdum í fiørutíu ár. Og Athniel, sonur Kenas, deyde.

12. Enn Israels børn gerdu enn nú íllt fyrer Drottne, þá stirkte Drottinn Eglon, kong Moabita, í mót Israel, fyrer þvi, ad þeir gerdu íllt fyrer Drottni.

13. Og hann safnade Ammons børnum til sín, og þeim Amalechitum, og hann ferdadest af stad, og sló Israel, og tók Palmastadenn frá þeim.

14. Og Israels børn þiónudu Eglon, Moabita konge, í átian ár.

15. Þá hrópudu þeir til Drottins, og Drottinn uppvakte þeim einn frelsara, Ehud, son Gera, sonar Jemini, af Benjamins ætt, hann var ørvhendtur.

16. Og þá Israels børn sendu Eglon, Moabita konge gáfur med hønum, gerde Ehud ser eitt tvíeggjad sverd, einnrar álnar langt, og batt þad under sitt klæde á sitt hægra læri,

17. Og færde Eglon Moabita konge skenkenn. Enn Eglon var miøg feitur madur.

18. Og sem hann hafde afhendt skenkenn, þá let hann folked frá ser, sem gáfurnar høfdu bored.

19. Og snere aptur frá afgudunum í Gilgal, og let kunngera, eg hefe, o kongur! nockud heimuglegt ad segia þer. Enn hann bad ad gefa hliod, og þeir aller geingu út frá hønum, sem í kringum hann stódu.

20. Og Ehud kom inn til hans, enn hann sat í einum sumar sal. Og Ehud sagde: eg hefe Guds ord til þín. Þá stód hann upp af sínum stóli.

21. Enn Ehud útrette sína vinstre hønd, og greip sverded af sínu hægra lære, og keirde þad í hans kvid.

22. So ad skapted geck inn med bladenu, og istrenn hulde bladed þvi hann dró eigi sverded aptur af hans kvide) so ad saurenn geck af hønum.

23. Enn Ehud geck út af salnum, og let aptur dyrnar epter ser, og sló þeim í lás.

24. Og sem hann var útgengenn, þá komu kongsins þenarar inn, og sáu, ad dyrnar á sumar salnum voru aptur luktar, og søgdu: ske má, ad kongurenn se gengenn til naudsynia erinda sinna í nádhused hiá sumar salnum.

25. Enn sem þeir bidu so leinge,

ad þeir blygdudust vid, þvi eingenn lauk upp dyrunum á salnum, þá tóku þeir lykelenn og luku upp, siá! þá lá þeirra Herra daudur á golfenu.

26. Enn Ehud komst undann á medann þeir stolldrudu, og geck framm hiá afgudunum, og komst undann til Seirath.

27. Og sem hann kom þar inn, bles hann í basunur á Ephraims fialle. Og Israels børn ferdudust med hønum af fiallenu, og hann fór undann þeim.

28. Og sagde til þeirra: fylged mer epter, þvi Drottinn hefir gefed ydur þá Moabita, ydra óvine, í ydar hendur. Og þeir fylgdu hønum epter, og þeir inntóku øll vød á Jordan, sem láu til Moab, og letu engann Mann komast yfer um,

29. Og slóu þá Moabita á þeim tíma, nær tíu þusund Menn, alla saman, þá enu bestu og hraustustu strídsmenn, so ad þar kom eigi einn undann,

30. So urdu Moabitar á þeim tíma underþryckter under hende Israels barna, og landed hvíldest í áttatíu ár.

31. Þvi nærst var Samgar sonur Anath, hann sló sex hundrud Philistèos, med einu nauta prike, og hann frelsade einnenn Israel.

## 4. Capitule.

1. Israels børn gerdu enn framar illgerder fyrer Drottni, epter andlát Ehud.

2. Og Drottinn selldе þá í hønd Jabin, sem ad var kongur þeirra Cananita, hver ad sat í Hazur. Sissera var hans hershøfdinge, og hann bió í Harosеth þeirra heidnu.

3. Og Israels børn kølludu til Drottins, þviad hann hafde níu hundrud járnvagna, og þvingade Israels børn med magt, í tuttugu ár.

4. A þessum sama tíma var sú spákona Debora domare í Israel, hver ed var eigennkona (þess Manns sem het) Lapidoth.

5. Og hún bió under palma trenu Debora, í millum Rama og Beth El, á fiallenu Ephraim, og Israels børn komu upp til hennar, til mála álita.

6. Sú sama sende út, og let kalla til sín Barak, son Abi Noam, af Kedes Nephthali, og let seigia hønum: hefir eigi Drottinn Israels Gud boded þer? far hedan, og ferdast uppá fialled Thabor, og tak tíu þusund manns med þer af børnum Nephthali, og Sebulon?

7. Þvi eg vil leida Sissera, Jabin strídshøfudsmann, til þín, vid þad vatn Kison, med sína vagna, og med allan sinn hóp, og eg vil gefa hann í þínar hendur.

8. Barak svarade henne: ef þú villt fara med mer, þá vil eg fara, enn ef þú villt eigi ferdast med mer, þá fer eg hverge,

9. Hún sagde: eg vil fara med þer, enn engann prís muntu fá af þessáre ferd sem nu fer þú, helldur mun Gud gefa Sissera í hønd einnrar kvinnu. Og epter þetta bió Debora sig, og fór med Barak til Kedes.

10. Þá kallade Barak Sebulon og Nephthali til Kedes, og reiste gangande med tíu þusund Manns. Debora var og í før med hønum.

11. Enn Heber Keniter var kominn fra Kenitum, hann var kominn af børnum Hobabs, mags Mosis, og hafde reist sína tialldbud hiá þeirre tik Zaanaim, hiá Kedes.

12. Þá feck Sissera ad vita, ad Barak, sonur Abi Noam, var kominn á fialled Thabor.

13. Og hann samansafnade øllum sínum vøgnum, níu hundrud járnvagna, og øllu þvi fólke sem var med hønum, fra Haroseth heidingianna, allt ad þvi vatne Kison.

14. Og Debora sagde til Barak: rís upp, þetta er sá dagur á hverum Drottinn hefir gefed Sissera í þínar hendur, þvi Drottinn mun fara út undann þer. So fór Barak nidur af fiallenu Thabor, og þau tíu þusund Manna epter hønum.

15. Enn Gud skelfde Sissera, og alla hans vagna, og allann Herenn, fyrer Baraks sverds eggium, so ad Sissera støck af sínum vagni, og flyde á fæte undann.

16. Enn Barak sokte epter vøgnunum og hernum, til heidingianna Haroseth, og allt herfolk Sisseræ fell fyrer sverds eggium, so þar var eigi einn epter.

17. Enn Sissera flúde á fæte í tialldbúd Jael, sem var hustru Hebers kenita, þvi Jabin, kongur af Hazor, og Hebers Kenita hus, høfdu frid hverer vid adra.

18. Þá geck Jael út ímóte Sissera, og sagde til hans: vík minn Herra! vík til mín, og óttast eigi neitt. Og hann snere inn til hennar í tialldbúdena. Og hún breidde yfer hann skickiu.

19. Hann sagde til hennar: eg bid, gef mer líted vatn ad drecka, þvi mig þyrster. Þá tók hún upp eina miolkur byttu, og gaf hønum ad drecka, og breidde yfer hann aptur.

20. Og hann sagde til hennar: gack út í tiallds dyrnar, og kome þar nockur og spyrre ad, hvert her er nockur? þá seig þu: ad her se eingenn.

21. Þá tók Jael, kvinna Heber, einn tialldhæl, og Hamar, í sína hønd, og geck hliódlega inn til hans, og sló tialldhælinn í gegnum hans gagnauga vanga, so hann nam stadar í jørdu, enn hann var fallenn í fastann svefn, vard vanmáttugur, og deyde.

22. Enn þá Barak sokte epter Sissera, þá kom Jael út móte hønum, og sagde til hans: far hingad, eg vil syna þer þann Mann sem þú leitar epter. Og sem hann geck inn til hennar, lá Sissera daudur, og tialldhællinn stód í gegnum hans gagnaugu.

23. Med þessum hætte nidurþrycte Gud í þann tíma Jabin, Cananita kong, fyrer Israels børnum.

24. Og Israels barna hønd feck frammgang, og vard sterk mót Jabin, Cananita, konge, þar til ad þeir afmádu hann.

## 5. Capitule.

1. Þá sungu Debora og Barak, sonur Abi Noam, á þeim tíma, og søgdu.

2. Lofed Drottinn, ad Israel er ordenn frí aptur, og ad folked var vel vilugt þar til.

3. Heyred til þer kongar, og gæted ad þer høfdingiar, eg vil syngia Drottni, ja, Drottni Israels Gude vil eg syngia.

4. Drottinn! þá þú reister út af Seir, og geckst fra Edoms vøllum, þá bifadest jørdinn, himenenn draup, og af skyunum draup vatn.

5. Fiøllenn runnu fyrer Drottne, Sinai fyrer Drottne Israels Gude.

6. A tíma Samgars, sonar Anaths, í Jaels tíma, forgeingu vegerner, og þeir sem ganga skilldu á beinum stígum, þeir geingu krókotta vegu.

7. Þar þraut, bændur þraut í Israel, þar til eg Debora uppkom,

þar til eg uppkom, ein moder í Israel.

8. Þá hann útvaldi nya Gudi, var stríd í borgarhlidunum, þar sáſt hverke ſkiølldur ne ſpiót á millum fiørutíu þuſunda í Iſrael.

9. Mitt hiarta hefir lyſt til Israels ſtiórnara, ſem eru vilnger á medal folkſins. Lofed Drottinn.

10. Þer ſem ríded føgrum øſnum, þer ſem ſited í domenum, og ſynged, þer ſem ganged á veigenum.

11. Þar ſem bogmennerner hrópa á medal þeirra ed vatned auſa, þar ſeigia menn af Drottins rettlæte, af hans bænda rettlæte í Iſrael, þá ferdadeſt Guds folk nidur til portanna.

12. Upp, upp, Debora, upp upp, og ſyng eina víſu; tak þig upp, Barak, og fanga þína ſauga, þú ſonur Abi Noam,

13. Þá drottnudu þeir ſem epter voru ordner yfer þad megtuga folk, Drottinn hefir ſtiórnad fyrer mig yfer þá volldugu.

14. Af Ephraim var þeirra rót ímót Amalech, og epter þig Benjamin í þínu følke. Af Machir eru komner ſtiórnendur, og af Sebulon þeir ed drotna fyrer ſkriffiadrer.

15. Og høfdingiar af Iſaſchar voru med Debora, og Iſaſchar var ſem Barak í lægdernar útſendur med ſínum fótgøngurum, Ruben hellt miked af ſer, og ſkilde ſig frá oſs.

16. Hvar fyrer varſtu epter á millum ſauda húſanna, ad heyra jarm hiardarennar, og þú hellſt miked af þer, og ſkilder þig frá oſs?

17. Gilead var hinumeigenn Iórdanar, og þvi bió Dan á millum ſkipanna? Aſſer ſat vid ſiáfarhøfn, og var í ſínum nidurbrotnu þorpum.

18. Enn folk Sebulon hætte ſínum ſálum í dauda, og Nephthali á þeim hædum í mørkenne.

19. Kongarner komu og heriudu: þá heriudu þeir Canauita kongar í Thaanach, hiá Megiddo vatne, enn þeir unnu þar engann ſigur.

20. Af himnenum var bareſt ímóte þeim, ſtiørnurnar í ſinne rás ſtriddu ímót Siſſera.

21. Lækurenn í Kiſon umvellte þeim, lækurenn Kedumim, lækurenn Kiſon. Mín ſál, ſtíg þú uppá þá ſtirku,

22. Þá bifuduſt heſtafæturner, af mistrauſte ſinna ſtirku riddara.

23. Bølved þeim ſtad Meros, ſagde Guds eingell, bølved hans borgurum, þvi þeir komu eigi Drottni til hiálpar, já, Drottni til hiálpar ímóte køppunum.

24. Bleſſud vere Jael á medal kvenna, kvinna Heber, þeſs Kenita, bleſſud ſe hún í tialldbúdum á medal kvenna.

25. Hún gaf miolk, þá hann bad um vatu, og bar ſmiør framm í einnre fordilldarlegre ſkál.

26. Hún tók naglann med ſinne hendi, og ſmids hamarenn med ſinne hægre hendi, og ſló Siſſera í gegnum hans høfud, og molvade, og í gegnum borade hans gagnaugu.

27. Fyrer hennar fótum beygde hann ſig, fell nidur, og lagde ſig, hann beygde ſig, og fell nidur fyrer hennar fætur, líka ſem hann beygde ſig, ſo lá hann fallenn.

28. Siſſeræ moder ſá út um vindaugad, og gret í gegnum grindurnar, þvi tefur hans vagn, ad hann kemur eigi? þvi eru hiólenn hans vagns ſo ſein.

29. Þær víſuſtu á millum hennar kvenna ſvørudu, þá hún let eigi af ad harma:

30. Skulu þeir eigi ſinna, og her-

fángenu, útskipta, serhverum manne eina stulku, eda tvær til bytis, og Sissera mislitudum støngudum klædum til bytis, støngudum mislitudum klædum um hálsinn til bytis?

31. So skulu, Drottinn, aller þíner óvíner fyrerfarast, enn þeir sem elska þig skulu vera líka sem þá sólenn uppgengur í sinne magt. Og landed var kirrt í fiørutíu ár.

## 6. Capitule.

1. Og þá Israels børn gerdu ílla í auglite Drottins, gaf Drottinn þá under hendur Madianita í siø ár,

2. Enn sem hønd þeirra Madianita vard ofsterk yfer Israel, þá gerde Israels folk ser fylsne á fiøllum, og hellera, og víge.

3. Og þegar Israel sáde nockru (kornsæde) þá komu Madianitar, og Amalekitar, og þeir úr austurálsu uppyfer þá,

4. Og løgdu sig í mót þeim, og fordiorfudu landsins ávøxtu, allt til Gasa, so ad Israel hellt engre biørg epter, hverke saud, ne naute, ne asna.

5. Þviad þeir ferdudust upp med sínu kvikfenad, og sínar tialldbúder, so (til ad jafna) sem mikell fiølde eingesprettna. so ad bæde þeir og þeirra ulfalldar voru ótelianleger, og fellu inn í landed ad fordiarfa þad.

6. So vard Israel miøg underþrycktur af þeim Madianitum.

7. Þá kølludu Israels børn til Drottins. Enn sem þeir kølludu til Drottins, søkum Madianitanna,

8. Þá sende Gud Drottinn einn spámann til þeirra. Hann sagde til þeirra: so seiger Drottinn Gud Israel: eg færde ydur út af Egyptalande, og leidde ydur af því þrældoms huse,

9. Og frelsade ydur af Egyptskra hende, og frá allra þeirra hende sem ydur þvingudu, og eg útkrakt þeim fyrer ydur, og gaf ydur þeirra land.

10. Og eg sagde til ydar: eg em Drottinn ydar Gud, óttest eigi þá Amoritanna Gude, í hverra lande þer búed, enn þer hafed eigi hlydt minne raustu.

11. Og eingell Drottins kom og sette sig under eina eik í Ophra, hver ad tilheyrde Joas, fødur þeirra Esrita, og hans sonur Gedeon var ad þreskia hveite í pressu, so hann mætte flya fyrer Madianitum,

12. Þá birtest Guds engell hønum, og sagde til hans: Drottinn se med þer, þú strídskappe,

13. Enn Gedeon svarade hønum: minn Herra! se Drottinn med oss, því hender oss þá allt þetta? og hvar eru þær allar dádsemder sem vorer forfedur frammtøldu oss, og søgdu: Drottinn hefir fært oss af Egyptalande? enn nú hefir Drottinn yfergefed oss, og gefed oss under hendur Madianitanna.

14. Þá snere Drottinn ser til hans, og sagde: far af stad í þessum þíuum stirkleika, þú skallt frelsa Israel af høndum þeirra Madianitarum, siá þú, eg hefe útsendt þig.

15. Enn hann sagde til hans: minn Herra! med hveru skal eg frelsa Israel? siá, mín ætt er sú hin minnsta á medal Manasse, og eg em hinn minnste í míns fødurs húse.

16. Drottinn sagde til hans: eg vil vera med þer, so þú skallt slá þá Madianita, so sem einn einungis madur.

17. Þá sagde hann til hans: hafe eg funded nád fyrer þer, þá ger mer eitt teikn, ad þú ert hann, sem talar vid mig.

18. Far eigi í burt, fyrr enn eg

kem til þín, og ber mitt matoffur, so eg sete það fyrer þig. Hann svarade: eg vil bída þar til þú kemur aptur.

19. Og Gedeon kom, og slátrade einu hafurkide, og (tók) eina Epha med ósyrdu miøli, lagde kiøted í eina kørf, og let soded í einn pótt, og bar þetta út til hans under eikena, og geck framm.

20. Þá sagde Guds engell til hans: tak kiøted og það ósyrda miøl, og legg það uppá þennann stein sem her er, og steyp út sodenu; og hann gerde so.

21. Þá útrette Drottins engell þann staf sem hann hafde í hendenne, og snart kiøted med (stafs) endanum, og so það ósyrda miøled, og elldur spratt upp af steinenum, og fortærde kiøtinu, og því ósyrda miøle, og Drottins engell hvarf frá hans augum.

22. Sem Gedeon sá nú, ad það var engell Drottins, sagde hann: o Drottinn! Drottinn! hefe eg so seð Drottins engel frá andlite til andlitis,

23. Þá sagde Drottinn til hans: fridur vere med þer, óttast þú eigi, eigi skalltu deya.

24. Þá bygde Gedeon Drottni eitt alltare í þeim sama stad, og kallade það, Drottinn fridarins, og það stendur enn á þessum deige í Ophra, sem heyrde til fodur þeirra Esrita.

25 Og á þeirre sømu nott sagde Drottinn til hans: tak einn uxa á medal þíns fødurs uxa, og einn annann uxa siø ára gamlann, og brióт nidur það Baals alltare, sem er þíns fødurs, og afhøgg þann lund sem þar er hiá,

26. Og uppbyg Drottni Gude þínum eitt alltare, upp efst á hæd þessa steins, og til bú það, tak annann uxann, og offra brenneoffre, med vidnum af þeim lunde, sem þú upphiöst,

27. Þá tók Gedeon tíu menn af sínum þenurum, og gerde so sem Drottinn hafde hønum sagt. Enn hann þorde eige ad gera soddann um daginn, søkum síns fødurs hús, og søkum folksins í stadnum, og gerde þetta á náttartíma.

28. Þá stadarins folk stód nú árla upp um morgunenn, siá! þá var Baals alltare nidur broted, og lundurenn þar hiá upphoggenn, og sá annar uxe eitt brenneoffur á alltarenu, sem uppbygt var.

29. Og einn sagde til annars, hver mun þetta hafa gert? enn sem þeir rannsøkudu, og epter spurdu, þá var sagt Gedeon: sonur Joas, hefir gert það.

30. Þá sagde fólked í stadnum til Joas: Sel þinn son framm, hann skal deya, af því hann hefir nidur broted Baals alltare, og afhøgged lundenn þar hiá.

31. Þá sagde Joas til allra þeirra sem stódu hiá hønum, viled þer þrátta vegna Baals? viled þer hiálpa hønum? hver sem reiser þrætur hans vegna sá skal deya þennann morgun. Se hann Gud, þá hefne hann sialfur sín, ad hans alltare er nidur broted.

32. Upp frá þeim deige kølludu Menn hann Jerub-Baal, og sogdu: Baal hefne sín sialfur, ad hans alltare er nidur broted.

33. Nú sem aller Madianitar og Amalekitar, og þeir af austurlande høfdu samann safnast, og dróu í gegnum, og legrudu sig í Jesreels dal,

34. Þá íklæddist Guds ande Gedeone. Og hann let blása í basunur, og kallade Abi Eser, ad hann skyllde fylgia ser.

35. Og hann sende bod til alls Manasses, og kallade þá, ad þeir skylldu hønum og so eptersylgia. Hann sende og bod til Asser, og Sebulon, og Nephthali. Þeir komu upp ímóte hønum.

36. Og Gedeon sagde til Guds: ef þú villt frelsa Israel fyrer mína hønd, so sem þú hefir sagt,

37. Þá vil eg leggia eina gæru í lafagardenn, og kome alleinasta døgg á gæruna, enn øll jørdenn er þurr í kring, þá vil eg merkia, ad þú villt frelsa Israel fyrer mína hønd so sem þú hefir sagt.

38. Og þad skede so. Og um morgunenn þess annars dags, þegar árla, sem hann stód upp, vatt hann døggena úr gæruune, og fyllte eina skál fulla med vatni.

39. Og Gedeon mællte vid Gud: Þín reide uppæsest eigi vid mig, þó eg tale enn einu sinne; eg vil gera raun til enn einu sinne med þessa gæru, lát nú gæruna alleinasta þurra vera, enn jørdena alla døggvada.

40. Og Gud gerde so á þeirre somu nottu, ad gærann alleina var þurr enn døgg á allre jørdunne.

## 7. Capitule.

1. Epter þetta tók sig upp Jerub Baal, þad er Gedeon, snemma morguns, og allt þad folk sem med hønum var, og sette sínar herbúder hiá þeim brunne Harod, so hann hafde herinn þeirra Madianita nordur frá ser, á bak vid þá hæd, sem þeir helldu sitt vardhalld í dalnum.

2. Og Drottinn sagde til Gedeon: þú hefir of margt folk med þer, ad eg skule gefa Madian í þeirra hendur, Israel mætte hrósa ser á móte mer, og seigia: mín hønd hefir frelsad mig.

3. Þár fyrer láttu út hrópa fyrer folksins eyrum, og seigia: hver sem hann er hræddur og esadur, hann snúe aptur, og skunde strax frá Gilead fialle. Þá sneru aptur af fiallenu tvær þusunder manna og tuttugu, so eige vard nema tíu þusunder manna epter.

4. Og Drottinn sagde til Gedeon: enn er fólked ósmargt, leid þá nidur til vatnsins, þar vil eg reyna þá handa þer. Og um hvern eg seige þer; ad hann skule fara med þer, hann skal fara med þer, enn um hvern ad eg seige, hann skule eigi med þer fara, hann skal eigi fara.

5. Og hann færde fólked nidur til vatnsins. Og Drottinn sagde til Gedeons: hver sá sem lepur vatnid med sinne tungu sem einn hundur lepur, þeim skalltu skipa ser í lage, og so hver sem fellur á sín kne og drekkur svo.

6. Og þeirra tala sem høfdu lapad af høndunum til munnsins, var þríu hundrud manns, enn allt annad fólked fell á sín kne, og drack.

7. Og Drottinn sagde til Gedeon: med þessum þremur hundrudum manna, sem (vatned) hafa lapad, vil eg frelsa ydur, og gefa Madianita í þínar hendur, enn lát þad allt annad folk fara í sinn stad.

8. Og þeir tóku vister med ser handa fólkenu, og so sínar basunur, enn þá alla adra Israelita, let hann fara frá ser, hvern til síns Heimilis. Og hann eslde sig med þeim þrím hundrudum manns, og her þeirra Madianita lá þar nidur frá fyrer hønum í nockru dallende.

9. Og Drottinn sagde til hans á þeirre somu nóttu: statt upp, og gack ofann til herbúdanna, þvi eg hefe gefed þá í þínar hendur,

10. Enn ef þú óttast ad fara ofann, þá lát þinn svein Pura fara med þer til herbúdanna,

11. So þú meiger heyra hvad þeir

seigia, og epter Þad skalltu med magt fara nidur til herbúdanna. Sídan geck Gedeon, med sínum sveine Pura, nidur til Þess stadar sem Þeir helldu skialldvørd sem í herbúdunum voru,

12. Enn Madianitar og Amalekitar, og aller af austurlandenu, høfdu lagt sig nidur í dalverpinu, so sem mergd af eingespretttum, og Þeirra ulfalldar voru so marger, ad eigi mátte tølu á koma, eins og sandur á siáfar strøndu.

13. Enn sem Gedeon kom, siá, Þá sagde einn ødrum einn draum, og sagde: siá! mig dreymde, mer Þótte, ad eitt øskubakad bygg braud vellte ser ad her Madianitanna, og sem Þad kom ad landtialldenu, Þá sló Þad, Þad sama, og kastade Þvi nidur, og umvellte Þvi, so Þad nedsta vard uppá, og landtiallded lá (flatt.)

14. Þá svarade hinn annar: Þad er eigi neitt annad enn sverd Gedeonis, sonar Joas, Þess Israelita. Gud hefir Madianitana í hans hendur gefed med øllum Þeim Her.

15. Enn sem Gedeon heyrde soddann einn draum frammsagdann, og hans útlegging, Þá badst hann fyrer, og kom aptur til Israels hers, og sagde: taked ydur upp, Þvi Drottinn hefir gefed her Þeirra Madianita í ydar hendur.

16. Og hann skipte Þessum Þremur hundrudum manns í Þriá flocka, og feck hverium eina básunu í sína hønd, og tóma krús, og blis Þar í,

17. Og sagde til Þeirra, horfed á mig, og gered líka so, og siáed, Þegar eg kem Þangad ad sem herinn er, Þá gered eins og eg gere,

18. Þá eg blæs í básunu, og aller Þeir sem med mer eru, Þá skulu Þeir og so bláſa í básunur í kringum allann herinn, og seigia: her er Drottinn og Gedeon.

19. So kom Gedeon, og Þeir hundrad menn med hønum, ad Þeim stad sem herinn var, ad Þvi fyrsta vardhallde sem Þar var skickad, og uppvøktu Þá, og blesu í sínar básunur, og slóu krusernar í sundur í sínum høndum,

20. So blesu aller Þesser Þrír flockar í básunur, og brutu í sundur krusernar, enn helldu á blisunum í sínum vinstre høndum, enn básununum í sínum hægre høndum, sem Þeir blesu í, og hrópudu: her er sverd Drottins og Gedeons!

21. Og hver um sig stód í sínum sama stad, í kringum herinn. Enn allur herinn tók til hlaups, og hrópade og flyde.

22. Og sem Þesse Þríu hundrud manns Þeyttu sínar básunur, Þá skickade Drottinn Þvi so, ad serhvers sverd snerest í gegn ødrum, um allann herinn. Og herinn flyde til Beth Sitta Zeredatha, allt til landamerkia Þess vídlendis Mehola, hiá Tabath.

23. Og Israels menn af Nephthali, af Asser, og af øllum Manasse, hrópudu, og ráku flóttann, og sóktu epter Madianitum.

24. Og Gedeon sende bod um allar siállbygder Ephraims, og let seigia Þeim: fared ófann ímót Madianitum, og inntaked fyrer Þeim vatned, allt til Beth Bara og Jordan. Þá hrópudu aller Þeir sem voru af Ephraim, og bønnudu Þeim vatned, inn til Beth Bara og Jordan.

25. Og Þeir gripu tvo af Þeim Madianita høfdingium, Oreb og Seb, og drápu Oreb á Þeim steine Oreb, og Seb í Þeirre Þrugu Seb, og ráku flótta Madianitanna, enn færdu høfudenn af Oreb og Seb til Gedeon, yfer um Jordan.

## 8. Capitule.

1. Og þeir menn af Ephraim søgdu til hans: þvi gerder þú oss þad, ad þ: eigi kallader oss, þá þú fórst í þetta stríd ímót þeim Madianitum? og þeir þráttudu hardlega vid hann.

2. Þá sagde hann til þeirra: hvad hefi eg nu þess gert, sem jafnast má vid ydar gerninga? er eigi einn vínkvistur betre af Ephraim, helldur enn øll vínyrkia Abi Eser?

3. Gud hefir gefed høfdingia Madianitanna, Oreb og Seb, í ydar hendur, hvernenn mátta eg gera þad sem Þer hafed gert? og þá hann hafde þad talad, stilltest þeirra reide.

4. Enn þegar ad Gedeon kom til Jordanar, fór hann yfer med þau þríu hundrud manns sem voru med hønum, og þeir voru þreytter, og ráku flóttann.

5. Og hann sagde til folksins í Suchoth: eg byd ydur, gefed þvi fólke sem med mer er, nockud braud, þvi þeir eru þreytter, so eg meige sækia epter þeim Sebah og Zalmuna, Madianita kongum.

6. Enn þeir yppurstu í Suchoth svørudu: eru hnefar þeirra Sebah og Zalmuna alla reidu í þínum høndum, so ver skulum gefa þínum her braud?

7. Gedeon svarade: nú vel, þá Drottinn gefir Sebah og Zalmuna í mína hønd, þá vil eg sundurþreskia ydart holld med þyrnum af eydemørku, og þyslum.

8. Og hann reiste þadann og upp til Pnuel, og talade eins til þeirra. Og fólked í Pnuel gaf hønum eins svar og hiner, sem voru í Suchoth.

9. Og hann sagde eins til folksins í Pnuel: ef eg kem aptur í fride, þá vil eg og nidurbrióta þennann kastala.

10. Enn Sebah og Zalmuna voru í Karkor, og þeirra her med þeim, sem var nær fimmtan þusunder, hverer aller voru epter ordner af þeim øllum her ur austurlande, þvi þad Herlid sem falled var, var hundrad og tuttugu þusunder manna, sem vopnfærer voru.

11. Og Gedeon ferdadest upp á þann veg, þar menn bioggu í tialldbúdum, austur frá Nobah og Jagbeha, og sló þann her, þvi sá her óttadest eigi ad ser.

12. Og Sebah og Zalmuna flýdu, enn hann rak flóttann epter þeim, og handtók þá báda Madianita konga, Sebah og Zalmuna, enn hrædde allann herinn.

13. Enn sem Gedeon, sonur Joas, kom aptur úr bardaganum, fyrer sólar uppruna,

14. Þá handtók hann einn svein af þvi fólke í Suchoth, og adspurdi hann. Hann skrifade hønum upp þá yppurstu í Suchoth, og þeirra ølldunga, sio og siotíu Menn.

15. Og hann kom til folksins í Suchoth, og sagde: siáed! her er Sebah og Zalmuna, um hvera þer hæddud mig, og søgdud: eru þá Sebah og Zalmuna hnefar allareidu þer í høndum? ad ver skulum gefa braud þínu fólke, sem þreytt er?

16. Og hann tók þá hina elllstu í stadnum, og þyrna og þysla í eydemørku, og let fólked í Suchoth kenna á þeim.

17. Og þann kastala í Pnuel braut hann nidur, enn drap fólked í stadnum.

18. Og hann sagde til Sebah og Zalmuna, hvernenn voru þeir menn sem þer íhelslóud í Thabor? þeir svørudu, þeir voru þer líker, og hver þeirra so prydelegur sem kongs børn væru.

19. Enn sagde hann: Þad voru míner brædur, syner minnar modur. So sannarlega sem Drottinn lifer, hefdud þer láted þá lifa, þá skyllda eg eigi hafa sleiged ydur íhel.

20. Og hann sagde til síns frumgetins sonar Jether: statt upp, og drep þá. Enn sveirninn dró ei sitt sverd út, þvi hann óttadist, sokum þess, ad hann var enn þá barn (ad alldre.)

21. Sebah og Zalmuna sogdu: statt þú upp, og vinn á ockur, þvi epter þvi sem madurenn er, so og er hans kraptur. Þá stód Gedeon upp, og sló Sebah og Zalmuna, báda íhel, og tók þær speingur sem voru um háls þeirra ulfallda.

22. Þá toludu nockrer af Israel til Gedeon: vert þú Herra yfer oss, þú og þinn sonur, og þinn sonar sonur sokum þess, ad þú hefir frelsad oss af hondum Madianita,

23. Enn Gedeon svarade þeim: eige vil eg vera Herra yfer ydur, minn sonur skal og einginn Herra yfer ydur vera, helldur Drottinn, hann skal vera Herra yfer ydur.

24. Gedeon sagde til þeirra: eins hlutar beidunst eg af ydur, ad hver ydar einn gefe mer þær ennisspeingur sem hann hefir ad herfánge feinged, þviad af þvi þeir voru Ismaelitar, þá hofdu þeir gullhlodum enne.

25. Þeir sogdu, þær vilum ver gefa þer. Og þeir breiddu nidur eitt klæde, og lagde hver einn og einn þar uppá þær ennisspeingur sem hann hafde rænt.

26. Enn þessar gyllene ennisspeingur, sem hann epterbadst, stódu ad vigt þusund og sjó hundrud sikla gulls, fyrer utann þær spanger, og kediur, og skarlats klæde, sem þeir Madianita kongar báru, og so án hálsbanda þeirra ulfallda.

27. Og af þessu gerde Gedeon einn lífkyrtel, og sette hann í sinn stad til Ophra. Og allur Israel framde hór þar med, og þad vard Gedeone, og hans húse, til hneixlunar.

28. So litelæckudust Madianitar fyrer Israels bornum, so þeir hófu eigi meir upp sitt hofud, og landed var kirrt um fiorutíu ár, so leinge sem Gedeon lifde.

29. Og Jerub Baal, sonur Joas, fór burt, og bió í sínu húse.

30. Og Gedeon hafde siotíu sonu, sem komner voru af hans lendum, þvi hann átte margar konur.

31. Og hans frilla, sem hann hafde í Sichem, fædde honum og so einn son, þann kallade hann Abi Melech.

32. Og Gedeon, sonur Joas, andadest í gódre elle, og var jardadur í síns fodurs grof Joas, í Ophra, sem heyrde til fodur þeirra Esrita.

33. Enn þá Gedeon var fallenn frá, þá snéru ser Israels born, og framdu hóraner epter Baalim, og gerdu ser Baal Berith til eins (af) guds.

34. Og Israels born minntust eigi á Drottinn sinn Gud, þann sem þá hafde frelsad af allra þeirra óvina hende, allt umkring,

35. Og veittu eigi miskun Jerub Baal Gedeons húse, so sem hann hafde allt gott gert Israel.

## 9. Capitule.

1. Og Abimelech, sonur Jerub Baal, fór burt til Sichem, til sinna modur brædra, og talade vid þá, og vid alla sína ættmenn af síns modur fodurs húse, og sagde:

2. Eg bid ydur ad tala fyrer allra manna eyrum í Sichem, hvert mun helldur betra vera fyrer ydur, ad siotíu Menn, oll born Jerub

Baal, seu Herrar yfer ydur, eda ad einn madur verde Herra yfer ydur? hyggsed jafnframt um þad, ad eg em ydart hold og bein.

3. Þá tølndu hans modurbrædur øll þesse ord um hann, fyrer allra manna eyrum í Sichem, og þeirra hiørtu hneigdust til Abi Melech, þvi þeir hugsudu med ser: hann er vor broder.

4. Og þeir gáfu hønum siøtíu silfurpeninga, af húse Baal Berith, og Abi Melech leigde ser med þessu lausa umhleypings menn, sem hønum epterfylgdu.

5. Og hann kom í síns føδurs hús í Ophra, og drap sína brædur, børn Jerub Baals, siøtiu menn, á einum steine, enn Jotham, yngste sonur Jerub Baal, vard epter, þvi hann var geymdur.

6. Enn aller menn af Sichem, og allur almúge af Millo húse søfnudust samann, fóru burt, og hylltu Abimelech til kongs, hiá þeirre stóru eik, sem stód í Sichem.

7. Sem Jotham var þetta sagt, geck hann burt, og fór uppá hærsta hvirfel fiallsins Grisim, upphóf sína raust, hrópade og sagde til þeirra: Þer menn í Sichem, heyred mig, ad Gud heyre ydur.

8. Tren fóru ad smyria einn kong yfer sig, og þau søgdu til vidsmiørstresins, vert þu vor kongur.

9. Vidsmiørs tred svarade: skal eg yfergefa minn feitleika, sem bæde Guder og menn heidra í mer, og fara ad sveima upp yfer skógartrián?

10. Þá søgdu tren til fíkintresins, kom þú, og vert vor kongur.

11. Enn fíkiu tred svarade þeim: skal eg yfergefa minn sætleika, og minn gódann ávøxt, og fara ad upphefiast yfer tren?

12. Þá søgdu tren til vínvidarins, kom þú, og vert vor kongur.

13. Vínvidurenn svarade þeim: skal eg yfergefa mitt vín, sem gledur bæde Gude og menn, og fara til ad upphefiast yfer tren?

14. Þá søgdu øll tren til þyrnebuskins: kom þú, og vert vor kongur.

15. Og þyrnebuskurenn svarade triánum: er þad víst, ad þer viled smyria mig til kongs yfer ydur? so komed hingad og hafed traust under mínum skugga, viled þer þad eigi, þá kome elldur af þyrnebuskenum, og eyde þeim Cedrusvidum í Libanon.

16. Hafed þer nú rettelega og ærlega gert, ad þer hafed til kongs teked Abi Melech, og hafed þer vel gert vid Jerub Baal, og hans hús, og hafed þer gert vid hann so sem hann forskulldade vid ydur.

17. Ad minn fader bardest vegna ydar, og lagde sitt líf í háska fyrer ydur, ad hann frelste ydur af hende þeirra Mádíanita.

18. Og þer seted ydur nú upp í dag á móte míns føδurs húse, og drápud hans eigenn børn, siøtíu menn, á einum steine, enn tókud ydur til kongs þann Abi Melech, sem ad var hans ambáttar sonur, yfer þá menn í Sichem, af þvi ad hann er ydar broder.

19. Nú ef þer hafed gert rettelega og ærlega vid Jerub Baal, og vid hans hús, á þessum deige, þá fagned yfer Abi Melech, og hann fagne yfer ydur.

20. Enn ef eigi, þá kome elldur af Abi Melech, og uppbrenne mennena í Sichem, og húsed Millo, sídan kome og elldur af mønnum í Sichem, og af Millo húse, og fortære Abi Melech.

21. Epter þetta flyde Jotham, og veik ser afvega, og geck til Ber, og bió þar, sokum síns brodurs Abi Melechs.

22. Enn sem Abi Melech hafde rikt yfer Israel i þrju ar,

23. Þa sende Gud einn sundurþyckis anda a millum Abi Melech og Sichem. Þviad menn i Sichem settu sig upp i møte Abi Melech,

24. Og brugdu hønum um hans illsku og vanart, sem hann hafde framed i møte þeim siøtiu sonum Jerub Baal, og løgdu Abi Melech til þeirra hans brædra blod, hvera hann hafde dreped, og þeim mønnum i Sichem sem hans hønd høfdu styrkt þar til, ad hann drap sina brædur.

25. Og þeir menn af Sichem gerdu sier eitt fyrersátur, efst a fiallenu, og ræntu þa alla sem ferdudust þann veg til þeirra. Og þetta var undervijsad Abi Melech.

26. Enn Gaal, sonur Ebed, kom med sinum brædrum, og geck i Sichem, enn þeir menn i Sichem treystu a hann,

27. Og ferdudust ut a akrana, og lásu ber af sinum vinvidum, og pressudu, og slóu upp dans, og gengu inn i sins Guds hus, átu og formælltu Abi Melech.

28. Enn Gaal, sonur Ebed sagde: hver er Abi Melech, og hvad er Sichem, ad ver skulum þióna hønum? er hann eigi sonur Jerub Baal, og hefir sett sinn þenara Sebul her yfer folk Hemors, føburs Sichem? þui skulum ver þióna hønum?

29. Gud gæse, ad folked være under minne hendi, so ad eg mætte útdrijfa þennann Abi Melech. Og nockur sagde til Abi Melech, fiølga du þinu herlide, og drag ut.

30. Þviad Sebul, høfdinge i stadnum, þa hann heyrde ord Gaal, sonar Ebed, þa uppkveikteſt hann af reide,

31. Og sende Abi Melech bod a laun, og let seigia hønum: sia þu, Gaal, sonur Ebed, og hans brædur, eru komner i Sichem, og hafa gert stadenn þer mótsnúenn.

32. So tak þig nu upp á nottu, þu og þitt folk sem hiá þer er, og ger þer eitt leyne-umsátur um þá á morkenne.

33. Og ad morgne, þegar sól geingur upp, þá reid þig til snemmindis, og fall yfer stadinn. Enn ef hann, og þad folk sem med hønum er, fer ut til þin, þá ger vid hann sem þin hønd finnur uppá.

34. Abimelech stód upp um nottena, og allt þad folk sem med hønum var, og settust um Sichem med fiórum fylkingum.

35. Og Gaal, sonur Ebed, fór ut, og geck ut fyrer dyrnar á stadarportenu, enn Abi Melech tók sig upp ur launsátrenu, og þad folk sem med hønum var.

36. Enn sem Gaal sá folked, sagde hann til Sebul, siá! þar kemur folk ofan af hæd fiallsins. Þá svarade Sebul hønum, þer synest skugg enn af fiallenu vera folk.

37. Gaal talade enn framar, og sagde: siá! þar kemur eitt folk nidur, midt af landenu, og einn flockur kemur af þeim veige, sem liggur ad þeirre tøfra eik.

38. Þá sagde Sebul til hans: hvar er nu þinn munnur sem ad so sagde: hver er Abi Melech, ad ver skylldum þióna hønum? er þad eigi þad folk sem þu forsmáder? far nu ut og hallt bardaga vid hann.

39. Gaal for ut fyrer borgar mønnum Sichem, og hellt bardaga vid Abi Melech.

40. Enn Abi Melech rak hann á flótta, so ad hann flude undann hønum, og marger fellu slegner, allt ad portsins dyrum,

41. Og Abi Melech var i Aruma. Enn Sebul utrymde Gaal og hans

brædur, so ad þeir máttu eigi vera í Sichem.

42. Ad morgne geck fólked út í mørkena. Og sem þad var undervísad Abi Melech,

43. Þá tók hann fólked, og skipte þvi í þriá flocka, og gerde eitt launsátúr um þá í mørkenne. Enn sem hann sá nú ad fólked geck út af stadnum, þá reiste hann sig í móte þeim, og slø þá.

44. Enn Abi Melech og þeir flockar sem voru med hønum, yferfellu þá, og foru allt ad borgarhlide, enn þeir tveir flockar yferfellu þá alla sem úte voru í mørkenne, og slóu þá,

45. Sídann strídde Abi Melech á stadenn, allann þann dag, og vann hann, enn drap fólked þar inne var, nidur braut stadenn, og sáde sallte þar yfer.

46. Enn sem aller þeir menn sem voru í turnenum Sichem, heyrdu þad, geingu þeir inn í Kastala síns afguds huss Berith.

47. Og sem Abi Melech heyrde þad, ad aller menn í turnenum Sichem høfdu samansafnast,

48. Þá geck hann uppá fialled Zalmon, med allt sitt folk, þvi sem med hønum var, og hann tók eina øxe í sína hønd, og hió einn kvist af triánum, og lypte hønum upp, og lagde ser á herdar, og sagde til alls þess folks sem var med hønum. Hvad þer sáud mig gera, þá gered strax þad sama so sem eg.

49. Þá hió allt fólked ser hver einn kvist af triánum, og fylgdu Abi Melech, og løgdu þad ad Kastalanum, og kveiktu elld þar í, so ad aller þeir Menn sem voru í turnenum í Sichem, dráþust, nær þusund, karlmenn og konur.

50. Sídan fór Abi Melech til Thebez, og settist um hana, og vann hana.

51. Enn þar var einn fastur turn midt í borgenne, þangad flúdu aller menn og kvinnur, og aller þeir borgarmenn sem í stadnum voru, og luktu dyrnar epter ser, og stigu sídann upp á þaked turnsins.

52. Þá kom Abi Melech ad turnenum, og strídde á hann, og hann geck ad dyrnnum á urnenum, til ad uppbrenna Turnenn med ellde,

53. Enn einn kvinna kastade einu kvarnarsteins brote í Abi Melechs høfud, og braut hans hausskel í sundur.

54. Þá kallade Abi Melech sem skiotast sinn skialldsvein, og sagde til hans: drag út þitt sverd, og slá mig íhel, so ad ei skule segiast um mig: ein kvinna deydde hann. Þá stack hans sveinn hann í gegnum, og hann dó.

55. Enn sem þeir Israelitar, sem voru med hønum, sáu, ad Abi Melech var daudur, þá geck hver til síns stadar.

56. So bitalade Gud Abi Melech þad ed vonda, sem hann hafde gert sínum fødur, þar hann drap sína siøtíu brædur.

57. Sømuleidis let Gud allt þad hid vonda sem Sichems menn høfdu gert, koma uppá þeirra høfud, og forbæner Jotham, sonar Jerub Baal, komu yfer þá.

## 10. Capitule.

1. Epter Abi Melech tók Thola sig upp ad hiálpa Israel, einn madur af Isaschar, sonur Pua, sonar Dodo, og hann bió í Samir, á fiallbyggdum Ephraims,

2. Og hann dæmde Israel í þriú og tuttugu ár, og hann andadest, og vard grafenn í Samir.

3. Epter hann uppreis Jair, einn af Gilead, og dæmde Israel í tvø og tuttugu ár.

4. Hann átte þriátíu sonu, hverer ad ridu á þriátíu asna folum. Og hafde þriátíu stade, hverer ad kølluduſt Jairs þorp, allt til þessa dags, og liggia í Gilead.

5. Og Jair dó, og vard grafenn í Kamon.

6. Israelis børn gerdu frammveigs íllt fyrer Drottni, og þiónudu Baalim, og Astharoth, og þeim afgudum í Syria, og þeim skúrgodum í Zidon, og Moabs Gudum, og Ammons barna Gudum, og Philisteanna Gudum, og yfergáfu Drottinn, og þiónudu honum eigi.

7. Þá uppvaktist reide Drottins yfer Israel, og hann gaf þá under hønd þeirra Philisteanna, og Ammons barna.

8. Og þeir þvíngudu og plágudu Israelis børn, frá þvi áre, í átian ár samfelld, einkum sem ad voru øll Israelis børn hinumeigenn Jordanar, í lande þeirra Amorita, sem ad liggur í Gilead.

9. Þar med fóru Ammons børn yfer um Jordan, og heriudu á Juda, Benjamin, og á Ephraims hús, svo ad Israel þreyngdest hardla miøg.

10. Þá kølludu Israelis børn til Drottins, og søgdu: ver høfum misgert ímóte þer, þviad ver høfum yfergefed vorn Gud, enn þiónad Baalim.

11. Þá sagde Drottinn til Israelis barna: hafa eigi Egyptar, þeir Amoritar, Ammons børn, þeir Philistear,

12. Þeir Zidonitar, þeir Amalechitar, og Maonitar þvíngad ydur? og eg hiálpade ydur af þeirra høndum, þá þer kølludud til mín,

13. Þó hafed þer samt sem ádur yfergefid mig, og þiónad annarlegum Gudum. Þvi vil eg eigi frammeir hiálpa ydur,

14. Helldur farid og ákallid þá Gude sem þer hafid útvalid ydur, látid þá hina somu hiálpa ydur í ydar hryggdar tíd.

15. Þá søgdu Israelis børn til Drottins: ver høfum syndgast; ger þú þad alleinasta til vid oss sem þer er þægelegt, enn frelsa þú oss nú ad eins á þessare tíd.

16. Og þeir køstudu frá ser annarlegum Gudum, og þiónudu Drottni. Og hann aumkvade sig yfer, ad Israel var svo plágadur.

17. Og Ammons børn voru samankøllud, og settu sínar herbúder í Gilead, enn Israelis søfnudust saman, og settu herbúder í Mizpa.

18. Og þeir ædstu medal folksins í Gilead søgdu hver til annars: hver sem fyrst vekur stríd vid Ammons børn, sá skal vera høfuded yfer øllum þeim sem búa í Gilead.

## 11. Capitule.

1. Jephthah, einn Gileadite, var einn strídskappe, enn var launget-enn, og Gilead hafde átt Jephthah.

2. Enn sem Gileads kvinna fædde honum børn, og sem børn somu kvinnu voru vaxenn, þá ráku þau Jephthah út, og søgdu til hans: eigi skalltu taka arf í vors fødurs húse, þvi þú ert af annarlegre kvinnu fæddur.

3. Þá flyde hann frá sínum brædrum, og bió í þvi lande Tob. Þá drifu til hans umhleypingsmenn, og dróu út med honum.

4. Og nockrum stundum þar epter heriudu Ammons børn á Israel.

5. Þegar Ammons børn stríddu nú so vid Israel, þá fóru øldungar af Gilead af stad, ad sækia Jephthah, í landed Tob,

6. Og søgdu til hans, kom og vert vor høfudsmadur, svo ad ver getum hallded bardaga vid Ammons børn.

7. Enn Jephthah svarade olld-
ungum af Gilead: erud þer eigi þeir
enir sømu sem mig hata, og hafed
útreked mig af míns føðurs húse,
og nú komed þer til mín, þvi þer
erud nú í neyd stadder?

8. Olldungar af Gilead søgdu til
Jephthah: þvi komum ver nú til
þín aptur, ad þú farer med oss, og
veiter oss stirk ad beriast imóte Am-
mons børnum, og ad þú sert vort
høfud yfer øllum þeim sem búa í
Gilead.

9. Jephthah sagde til olldungan-
na af Gilead: ef ad þer sæked mig
nú aptur, ad eg skule beriast vid
Ammons børn, og ef Drottinn gef-
ur þau under mig, skal eg þá verda
ydart høfud?

10. Olldungarner af Gilead søg-
du til Jephthah: Drottinn vere til-
heyrande í millum vor, ef ver ger-
um eigi so sem þú hefir sagt.

11. So geck Jephthah med þeim
olldungum af Gilead, og fólked set-
te hann til høfuds og høfdingia
yfer sig. Og Jephthah talade allt
þetta fyrer Drottni í Mizpa.

12. Þá sende Jephthah bod til
kongs Ammons barna, og let sei-
gia hønum: hvad hefir þú med mig,
ad þú kemur til mín ad heria á mitt
land?

13. Ammons barna kongur sva-
rade Jephthah sendemønnum: søk-
um þess ad Israel hefir teked under
sig mitt land, þá þeir fóru af Egyp-
talande, frá Arnon, og allt til Ja-
bok, og inntil Jordan, so gef mer
þad nú aptur med fride.

14. Enn Jephthah sende enn apt-
ur bod til Ammons barna kongs,

15. Þeir søgdu til hans: so seig-
er Jephthah: Israel hefir ecke land
tekid, hverke frá þeim Moabitum,
og eige frá þeim Ammons børnum.

16. Þviad þá þeir fóru af Egyp-
talande, þá ferdadist Israel í gegn-
um eydemørk, til þess Rauda hafs,
og kom til Kades,

17. Og sende bod til kongsins
þeirra Edomita og sagde: lát mig
fara í gegnum þitt land. Enn Edo-
mita kongur villde eigi heyra þá.
Þeir sendu og so til kongsins af
Moab, hann villde og eigi helldur.
So var Israel í Kades,

18. Og geck í eydemørkenne, og
ferdadest í kringum land þeirra
Edomita og Moabita, og komu aust-
ann ad Moabita lande, og sette sín
landtiølld hinumeigenn Arnon, og
komu eigi í Moabita landamerke,
þvi Arnon er Moabitanna landa-
merke.

19. Og Israel sende bod til Si-
hon, Amorita kongs, í Hesbon, og
let seigia hønum: lát oss ferdast í
gegnum þitt land, allt til míns
stadar.

20. Enn Sihon villde eigi trúa
Israel til ad ferdast í gegnum sín
landamerke, helldur safnade hann
ad ser øllu sínu fólke, og lagde sig í
Jahza, og bardist vid Israel.

21. Þá gaf Drottinn Israels
Gud Sihon, og allt hans folk, í Is-
raels hendur, so ad þeir slóu þá.
So inntók Israel allt land þeirra
Amoritarum, sem í þvi samá lande
biuggu,

22. Og þeir inntóku øll landa-
merke Amoritanna, frá Arnon, inn
til Jabok, og frá eydemørkenne, og
allt til Jordan.

23. So hefir nú Drottinn Isra-
els Gud útdrifid Amoritana fyrer
sínu fólke Israel, og þú villtu inn-
taka þá?

24. Þú skyllder inntaka þá sem
þinn Gud Camos útrymdu, enn lá-
ta oss eignast þá alla sem Drottinn
vor Gud hefir útdrifed fyrer oss.

25. Edur meinar þú, ad þú hafer

betra rett enn Balach, sonur Zipors, Moabita kongur?

26. Hefir hann nockurn tíma átaled, eda fært stríd á móte Israel? enn þó ad Israel hafe nú búed þriú hundrud ár í Hesbon, og hennar dætrum, í Aroer, og hennar dætrum, og í þeim øllum borgum sem liggia hiá Arnon? hvar fyrer fridudud þer eigi þad á þeim sama tíma?

27. Eg hefe eigi misgert vid þig, enn þú gerer svo illa vid mig, ad þú strídera á mig. Drottinn dæme í dag á millum Israel og Ammons barna.

28. Enn Ammons barna kongur heyrde eigi rædu Jephthah, sem hann sende til hans.

29. Þá kom ande Drottins yfer Jephthah, og hann ferdadest í gegnum Gilead, og Manasse, og í gegnum Mizpe, sem liggur í Gilead, og frá Mizpe, sem liggur í Gilead, mót Ammons børnum.

30. Og Jephthah het Drottni einu heite, og sagde: ef þú gefur Ammons børn í mínar hendur,

31. Hvad sem fyrst kemur ímóte mer út af mínu húse, þá eg kem heim aptur med fride, frá Ammons børnum, þad skal heyra Drottni til, og þad vil eg offra til brennefórnar.

32. Sídann fór Jephthah móte Ammons børnum, ad hallda bardaga vid þá. Og Drottinn gaf þá í hans hendur,

33. Og hann sló þá frá Aroer, og allt til madur kemur til Minnith, tuttugu borger, og allt til vínvidar slettlendisins, eitt miøg stórt slag. Svo urdu Ammons børn audmykt fyrer Israelis børnum.

34. Enn sem Jephthah kom í sitt hús til Mizpa, siá! þá geck hans dotter út ímóte hønum med bumbum og danse, og hún var hans einberne, og hann átte annars hverke son ne dottur.

35. Og sem hann sá hana, þá reif hann í sundur sín klæde, og sagde: ó ho! mín dotter, hvad beyger þú mig, og hreller mig, þvi eg upplet minn munn til Drottins, og eg get þad eigi tekid aptur.

36. Hún svarade: minn fader, hafer þú uppláted þinn munn fyrer Drottni, þá ger vid mig so sem þad er frammgeinged af þínum munne, fyrst Drottinn hefir hefnt þín á þínum óvinum, Ammons børnum.

37. Enn hún sagde til síns fødurs: ger mer þó þad til vilia, ad þú gefer mer tveggia mánada frest, ad eg meige ganga her frá nidur, uppá fialled, ad gráta minn meydom, med mínum leiksystrum,

38. Hann sagde: far af stad, og hann gaf henne tveggia mánada frest. Sídann geck hún í burt med sínum leiksystrum, og gret sinn meydom á fiallenu.

39. Og tveim mánudum þar eptir kom hun til síns fødurs aptur, og hann gerde henne sem hann hafde heited, hún hafde alldrei kennt nockurn mann. Og þad vard einn sidvane í Israel.

40. Ad Israels dætur geingu árlega árs í burt ad gráta dottur Jephthah Gileadita, í fióra daga á hveru áre.

## 12. Capitule.

1. Og þeir af Ephraim voru samankallader, og gengu ímót nordre, og søgdu til Jephthah: þvi forst þú í stríd á móti Ammons børnum, og kallader oss eigi, so ad ver færum med þer? ver vilum uppbrenna þig og þitt hús med ellde.

2. Jephthah sagde til þeirra: eg og mitt folk høfdum eina stora þráttan vid Ammons børn, og eg

kallade ydur, enn þer veittud mer eigi fulltingi af þeirra hondum.

3. Og sem eg sá nú, ad þer villdud eigi fulltingi veita, þá sette eg mína sál í mína hønd, og fór eg so á mót Ammons børnum, og Drottinn gaf þá í mína hønd, þvi komed þer nú her upp til mín, ad strída á móte mer?

4. Og Jephthah safnade saman øllum mønnum í Gilead, og bardest vid Ephraim, og þeir menn í Gilead slóu Ephraim, þvi þeir høfdu sagt: þer Gileads menn erud þó á medal Ephraim og Manasse, so sem flótta menn í Ephraim.

5. Og þeir Gileads menn inntóku øll vød á Jordan fyrer Ephraim. Þá þeir flótta menn af Ephraim nú søgdu. Lát mig fara her yfer um, þá søgdu Gileads menn til hans: ert þú einn af Ephraim? sem hann þá svarade: nei,

6. Þá bádu þeir hann ad seigia, Schiboleth. Enn hann sagde Sibboleth, og gat eigi nefndt þad rett, so gripu þeir hann, og slóu hann (hel hiá Jordans vade, so þar fellu í þann tíma af Ephraim tvær og fiørutíu þusunder.

7. Enn Jephthah dæmde Jsrael í sex ár. Og Jephthah af Gilead andadest, og vard grafenn í stødnum í Gilead.

8. Epter hann dæmde Jsrael Ebzan af Bethlehem,

9. Hann átte þriátíu sonu, og þriátíu dætur gaf hann út, og hann tók ad utann þriátíu dætur til sína sona.

10. Og hann var domare yfer Jsrael í siø ár. Og dó, og vard grafenn í Bethlehem.

11. Epter hann var domare í Jsrael Elon, einn af Sebulon, og hann var dómandi yfer Jsrael í tíu ár,

12. Og andadest, og vard grafenn í Aialon, í lande Sebulon.

13. Epter hann dæmde Abdon, sonur Hillels Jsrael, einn Pireathonite,

14. Hann átte fiørutíu syne, og þriátíu sona børn, hverer ad ridu á siøtíu asnafolum, og hann dæmde Jsrael í átta ár,

15. Og hann andadest, og vard jardadur í Pireathon, í lande Ephraim, á fialle þeirra Amalekita.

## 13. Capitule.

1. Og Jsraels børn gerdu enn framar illt fyrer Drottni. Og Drottinn gaf þá í Philisteanna hendur í fiørutíu ár.

2. Enn þar var einn madur í Zarea, af ætt Dans, sem het Manoah, og hans kvinna var óbiria, so hún átte eigi børn.

3. Og eingell Drottins birtest kvinnunne, og sagde til hennar: siá! þú ert óbiria, og fæder eigi, enn nú skalltu verda kvidug, og fæda einn son.

4. So vara þig nú, ad þú drecker eigi vín, ne nockurn sterckann drick, og so ad þú eter ecke óhreint,

5. Þviad þú skallt ólett verda, og einn son fæda, á hvers høfud eingenn rakstur knífur skal koma, þviad þesse sveinn skal vera Nazareus Guds, frá sinnar modurkvide, og hann skal uppbiria ad frelsa Jsrael af Philisteanna hende.

6. Þá fór konann, og kunngerde þetta sínum bonda, og sagde: þar kom einn Guds madur til mín, og hans mind var ad siá sem Guds engils, miøg ognarleg, so ad eg spurde hann eigi ad, hvadann hann kæmi, eda hvert hann villde, og eigi sagde hann mer sitt heite.

7. Hann sagde til mín: siá! þú skallt verda þungud, og fæda einn

son, þar fyrer drecktu eigi vín, ne áfeingann drick, og et eigi neitt óhreint, þviad sveinnenn skal vera Guds Nazareus frá modurlífe, allt til sins dauda.

8. Þá bad Manoah Drottinn, og sagde: heyr Drottinn, lát þann Guds mann koma til vor aptur, þann þú sender, so hann meige undervísa ockur, hvernenn vid skulum fara med þetta barn sem fædast skal.

9. Og Gud heyrde raust Manoah, og Guds engell kom til kvinnunnar í ødru sinne, enn hún sat á akre. Og hennar bonde Manoah var eigi hiá henne,

10. Þá rann hún sem skiótast, og kunngerde þad sínum bonda, og sagde til hans: siá! sá madur birtest mer sem til mín kom í dag.

11. Manoah spratt upp þegar, og geck epter sinne konu, og kom til mannsins, og sagde til hans: ert þú sá madur sem talade vid kvinnuna? hann sagde: já,

12. Og Manoah sagde: þegar þad fullkomnast sem þú hefir sagt, hvera frammferd og idiu skal þesse sveinn hafa?

13. Drottins engell sagde til Manoah, hann skal taka ser vara fyrer øllu þvi sem eg hefe sagt kvinnunne,

14. Hann skal og ecke eta þad sem af vínvidi kemur, og eige skal hann drecka vín, ne nockurn annann sterkann drick, og ecke óhreint eta, allt þad sem eg hefe bóded henne, þad skal hann hallda.

15. Manoah sagde til Drottins engels, lát oss hallda þer, ver vilum offra fyrer þer einu hafur-kide,

16. Enn engell Drottins svarade Manoah: þó þú hallder mer her, þá et eg þó eigi af þínum mát, enn ef þú villt gera Drottni eitt brenneoffur, þá máttu offra þvi, þvi Manoah visse eigi, ad þad var Drottins engell.

17. Og Manoah sagde til Drottins engels: hvad heiter þú, so ver meigum prísa þig, þegar þad er framm komed sem þú hefir sagt?

18. Engell Drottins svarade hønum: þvi spyr þú ad mínu heite, sem þó er undarlegt.

19. Þá tók Manoah eitt hafurkid, og matoffur, og offrade þetta fyrer Drottni yfer einum steine, og hann gerde þad undarlega. Enn Manoah og hans kvinna horfdu á.

20. Og þá loganu lagde upp af alltarenu, upp í himenenn, þá fór Guds eingell upp í loganum af alltarenu. Enn sem Manoah og hans kvinna sáu þad, fellu þau bæde framm til Jardar á sínar ásiónur.

21. Og engell Drottins opennberadest eigi meir fyrer Manoah, ne hans kvinnu. Þá underстód Manoah, ad þetta var engell Drottins,

22. Og hann sagde til sinnar kvinnu: vid munum vissulega deya, þviad vid sáum Gud.

23. Enn hans kvinna svarade hønum: ef Drottinn hefde haft gyrnd til ad deyda ockur, þá hefde hann hverke teked brenneførn ne matoffur af ockar hondum, hann hefde og ei kunngert ockur allt þvilíkt, og ei láted ockur heyra soddann sem nú er sked.

24. Og kvinnann fædde einn son, og nefnde hann Samson. Og sveinnenn óx upp, og Drottinn blessade hann.

25. Og Drottins ande tók ad frama hann í herbúdum Dans, millum Zarea og Esthaol.

## 14. Capitule.

1. Samson geck ofann til Thimnath, og sá þar eina kvinnu í Thimnath, á medal Philisteanna dætra,

2. Og sem hann kom upp, þá kunngerde hann þetta sínum fød-

ur, og sinne modur, og sagde: eg hefe sed eina kvinnu i Thimnath, medal dætra Philisteanna, gefed mer nú þá enu sømu til eigenn-konu.

3. Hans fader og moder søgdu til hans: er þá nú eingenn kvinna á medal þinna brædra dætra, og hiá ollu þínu fólke, ad þú villt fara þangad, og fá þer eigennkvinnu, hiá Philistunum, sem eru óumskorner? Samson svarade sínum fødur: lát mig fá þessa, þvi hún þocknast mínum augum.

4. Enn hans fader og moder vissu eigi, ad þetta var af Drottni, þvi hann leitade ordsakar vid Philisteana. Þviad þeir Philistei drottnudu i þann tíma yfer Israel.

5. Þá geck Samson med sínum fødur, og sinne modur, ofann til Thimnath. Og sem þau komu ad Thimnaths víngarde, siá! þá kom eitt ungt Leon øskrande, á mót hønum,

6. Og Guds ande kom yfer hann, og hann sundursleit þad, so sem þá madur i sundurslítur eitt hafur-kid, og hafde þó alls ecke i sinne hende, og eige sagde hann sínum fødur ne modur frá þessu, hvad hann hafde gert.

7. Enn sem hann nú kom ófann, talade hann vid kvinnuna, og hún þocknadest augum Samsonar.

8. Og nockrum døgum þar epter kom hann aptur ad egta hana. Og hann geck af veigenum, ad siá Leons hræed, og siá! þar var býflyge i Leons hræenu, og hunáng.

9. Og hann tók þad i sína hond, og át þar af á veigenum, og geck til síns føburs, og sinnar módur, og gaf þeim þar af, ad þau og so átu, enn hann sagde þeim eigi frá, ad hann hafde teked hunánged af Leons hræenu.

10. Og nú sem hans fader kom ofann til kvinnunar, þá gerde Samson sitt brúdkaup þar, so sem háttur var til ungra manna.

11. Og sem þeir sáu hann, gáfu þeir hønum þriátíu lagsmenn, sem hiá hønum skylldu vera.

12. Enn Samson sagde til þeirra: eg mun bera upp fyrer ydur eina gátu, se þad so, ad þer geted leyst hana, og hitt þar uppá á þessum siø brullaups døgum, þá skal eg gefa ydur þriátíu skirtur, og þriátíu hátídar klæde.

13. Enn ef þer geted eigi leyst hana, þá skulud þer gefa mer þriátíu skirtur, og þriátíu hátídar klæde. Þeir svørudu hønum: ber þú upp þína gátu, og lát oss heyra hana,

14. Hann sagde þeim: matur fór út af etanda, og sætleike af þeim sterka. Og þeir gátu eigi ráded þessa gátu i þriá daga.

15. A þeim siøunda deige søgdu þeir til Samsons kvinnu: locka þú af bonda þínum ad hann seige oss þessa gátu, ellegar skulum ver brenna þig og þíns føburs hús med ellde, hafed þer til þess innbóded oss, ad þer viled útarma oss, eda eige?

16. Þá gret Samsons kvinna fyrer hønum, og sagde: þú hatar mig, enn elskar eigi; þú hefir bored upp eina gátu fyrer børnum míns folks, og eigi skírt mer hana. Hann svarade henne: siá! eg hefe eigi sagt mínum fødur, og eige minne modur þad, og skyllde eg seigia þer þad?

17. Og hún gret fyrer hønum þá siø daga, á medan brúdkauped stód yfer, enn á þeim siøunda deige sagde hann henne þad, þvi hún þreyngde hønum þar til, og hún sagde børnum síns folks gátuna.

18. Þá mælltu borgarmenn til hans á þeim siøunda deige, ádur enn solenn geck nidur, hvad er sæta-

ra enn hunáng? eda hvad er sterkara enn Leon? þá sagde Samson til þeirra: hefdud þer eigi ared til med minne kvígu, þá hefdud þer eige getad ráded gátu mína.

19. Og ande Drottins kom yfer haun, og hann geck ófann til Askalon, og drap þriátíu menn af þeim, og tók þeirra klædnadi, og gaf þeim hátída klæde sem redu hans gátu; og hann vard ákaflega reidur, og fór upp til síns fødurs hüss.

20. EnnSamsons kvinna vard gipt einum hans stallbrædra, sem hønum tilheyrde.

## 15. Capitule.

1. Og þad skede so, epter nockora daga, á hveite kornskurdartímanum, ad Samson fór ad vitia sinnar kvinnu, og hafde med ser eitt hafurkid. Og sem hann þeinkte, eg vil ganga í herberged til konu minnar, þá villde eigi hennar fader losa hønum þar inn,

2. Og sagde: eg ætlade ad þú munder henne ordenn reidur, og þvi glpta eg hana þínum vini. Enn hún hefir adra yngre syster, sem frídare er enn hún; lát hana verda þína, fyrer þessa.

3. Samson sagde til þeirra: eg hefe nú einu sinne fenged retta sak á móte Philistunum, eg vil gera ydur skada.

4. Og Samson geck þadann, og veidde þriú hundrud refa, og hann tók ser elldskídi, og snere tilsamans einum hala til annars, og batt eitt elldskídi á millum hverra tveggia hala.

5. Og kveikte elld í þeim, og slapp þeim lausum' í korn Philisteanna, og uppbrennde þeirra bindene, og so þad standanda korn, og þeirra víngarda, og vidsmiørs tre.

6. Þá søgdu Philistei: hver hefir gert þetta? þá var þeim sagt, Samson dotturmadur hans í Thimnath, fyrer þad, ad hann tók hans hüstru, og gaf hana hans vini. Þá fóru Philistei upp þangad, og uppbrenndu hana, og hennar fødur med ellde.

7. Enn Samson sagde til þeirra: enn þó ad þer hafed þetta gert, þá vil eg sem ádur hefna mín siálfur á ydur, og láta af sídann.

8. Og hann sló þá hardlega bæde á herdar og lendar. Og hann fór ofann, og bió í einnre biargskoru í Etam.

9. Þá fóru Philistei upp og settust um Juda, og settu herbúder sínar í Lehi.

10. Enn þeir af Juda søgdu: því erud þer her uppkomner ímóte oss? þeir svørudu þess erindis erum ver hingad komner, ad binda Samson, ad gera vid hann, sem hann hefir gert oss.

11. Epter þad fóru þríar þusunder manna af Juda ofann til biargskorunnar í Etam, og søgdu til Samsoni veitstu eigi ad Philistei Drottna yfer oss? þvi hefir þú þá so breitt vid oss? hann sagde til þeirra: so sem þeir gerdu vid mig, so hefi eg gert vid þá aptur.

12. Og þeir søgdu til hans: ver erum komner her ofann, ad binda þig, og selia þig í hendur Philisteorum. Samson sagde til þeirra: þá svered mer eid, ad þer viled eigi yferfalla mig.

13. Þeir svørudu hønum, eige vilum ver yferfalla þig, helldur vilum ver ad eins binda þig, og gefa þig so í þeirra hendur, enn ei vilum ver slá þig íhel. Sídann bundu þeir hann med tveimur reipum nyum, og fluttu hann burt af biargenu.

14. Enn sem hann kom til Lehi, hlaupa Philistei þegar ímóte hønum med fagnade, enn ande Drott-

ins kom yfer hann, og reipenn af hans armleggium urdu sem þrádur brunnenn í ellde, so ad slitnudu þau bønd sem vorn á hans høndum.

15. Og hann fann einn füenn asna kiálka, og útrette sína hønd, og tók hann, og sló med hønum þúsund manna.

16. Og Samson sagde: þar liggia þeir í hrúgu; med einum asnakiálka hefi eg slegeð þusund menn.

17. Og sem hann hafde þad sagt, kastade hann kiálkanum úr sinne hende, og kallade þann stad Ramath Lehi.

18. Enn þá hann þyrste miøg, kallade hann til Drottins, og sagde: þú hefir gefed þessa miklu heilsu fyrer hønd þíns þenara, enn nú hlyt eg ad deya af þorsta, og falla í hendur óumskornna manna.

19. Þá klauf Gud einn jaxl í asnakiálkanum, so þar spratt út af vatn. Og sem hann drack, þá kom ande hans aptur, og hann vard endurnærdur aptur; þar fyrer kallast hann enn nú á þessum deige, ákallarans brunnur, sem vard í kiálkanum.

20. Og hann dæmde Israel á døgum Philisteanna í tuttugu ár.

## 16. Capitule.

1. Samson geck í burt til Gasa, og sá þar eina skækiu, og geck inn til hennar,

2. Þá var þad sagt þeim borgarmønnum í Gasa: Samson er komenn her inn, og þeir umkringdu hann, og letu sitia um hann alla nottena, í stadarportenu, enn voru kirrer um alla nottena, og søgdu: verum kirrer, á morgun strax ad birter, þá vilum ver slá hann í hel.

3. Samson svaf til midrar nætur. sídann stód hann upp ad midre nottu, og tók bádar hurdernar á stadar portenu, med bádum dyrastolpunum, og lypte þeim upp med slagbrøndunum, og lagde á sínar herdar, og bar þær efst uppá fialled fyrer Hebron.

4. Og epter þetta lagde hann ást vid eina kvinnu, hiá þeim læk Sorek, su nefndest Dalila.

5. Upp til hennar komu høfdingar Philistinorum, og søgdu henne; yfertala þú hann, og skoda hvar í hann hefir so mikenn stirkleika, og med hverx móte ad ver meigum sigra hann, so ver sáum bunded hann, og þvingad, þá vilum ver gefa þer, hver um sig, þusund og hundrad silfurpeninga.

6. Dalila sagde til Samsons: minn kære! seig þú mer í hveru falenn er þinn mikle stirkleike, og med hveru þig má binda, so þú verder þvingadur.

7. Samson svarade henne: ef eg em bundenn med siø línstreingum nyum, eigi enn upp þornudum, þá yrde eg veikur, og være so sem annar madur.

8. Þá færdu høfdingiar Philisteanna siø línstreinge nya upp til hennar, sem ei voru enn þurrer, og hún batt hann þar med.

9. Enn þeir tóku leynelega vára á hønum, í herbergenu hiá henne, og hún sagde til hans: Philistei yfer þig Samson. Enn hann rickte í sundur streingunum, sem þá hørtygell fer í sundur, þá hann kenner ellds, og vissest eigi, hvar í hans stirkleikur være.

10. Þá sagde Dalila til Samsons: siá! þú hefir gabbad mig, og loged ad mer. Seig mer nú þó, med hveru þig meige binda?

11. Hann svarade henne: ef þeir binda mig med nyum reipum, sem til engrar vinnu hafa høfd vered, þá verd eg óstirkur, og sem einn annar madur.

12. Pá tók Dalila ny reip, og batt hann þar med, og sagde: Philistei yfer þig Samson: (enn þeir tóku leynelega vara á hønum í herbergenu) og hann sleit þau af sínum hondum sem þrád.

13. Enn Dalila sagde til hans: Þú hefir enn nú gabbad mig, og loged ad mer. Kære, seig mer þó, hvar med þig meige binda? enn hann svarade henne: ef þú saman flettir mína siø høfudlocka med einum hárdreigle,

14. Og fester þá vid hæl. Og hún sagde til hans: Philistei yfer þig Samson. Og hann vaknade af sínum svefne, og rickte upp sínum flettudum lockum med hælnum, og hárdreiglenum,

15. Þá sagde hún til hans: hvernenn máttu seigia, ad þú hafer ást á mer, þar þitt hiarta er ei med mer? í þrjár reisur hefir þú nú gabbad mig, og eigi sagt mer í hveru þitt mikla afl folged være.

16. Og sem hún naudade á hønum med sínum ordum, dag frá deige, og plágade hann, mæddest sál hans allt til dauda,

17. Og hann let henne í ljóse allt sitt hiarta, og sagde til hennar: alldrei hefir hárhnífur komed á mitt høfud, þvi eg em Guds Nazareus frá modurkvide. Ef þú rakader mer, þá hvirfe minn styrkur frá mer, ad eg yrde óstirkur, og so sem aller adrer menn.

18. Enn sem Dalila sá nú, ad hann hafde birt henne allt sitt hiarta, þá sende hún, og let kalla á høfdingia Philistinorum, og seigia: komed nú enn um sinn upp hingad, þviad hann hefir nú birt mer allt sit hiarta. Pá komu Philisteanna høfdingiar upp til hennar, og høfdu med ser fe í sinne hende.

19. Og hún let hann sofa á sínu skaute, og kallade einn til sín, sem hans siø høfud locka rakade. Og hún tók til ad þvinga hann, þá var horfenn frá hønum hans stirkleikur

20. Og hún sagde til hans: Philistei yfer þig Samson. Enn sem hann nú uppvaknade af sínum svefne, hugsade hann, eg mun ganga út, sem eg hefe ádur opt gert, og slíta mig lausann, og hann visse eigi ad Drottinn var vikenn frá hønum.

21. Enn Philistearner gripu hann, og stungu út hans augu, og fluttu hann til Gasa, og bundu hann med tveimur koparvidum, ad hann skyllde draga kvern í mirkvastofu.

22. Enn hans høfudhár tóku til ad spretta aptur, þar þau voru aftekud.

23. Enn þá høfdingiar Philistinorum søfnudust samann, ad gera miked offur sínum Gude Dagon, og sig glada ad gera, þá søgdu þeir: vor Gud hefir gefed oss, vorn óvin Samson í vorar hendur.

24. Sømuleidis, þá alþydu fólked sá hann, lofudu þeir þeirra Gud, þvi þeir søgdu: vor Gud hefir gefed vorn óvin í vorar hendur, þann sem fordiarfade vort land, og dreped hefir marga af oss.

25. Og sem þeir vóru nú hiartanlega glader, þá seigia þeir: láted sækia Samson, so hann leike fyrer oss. Pá tóku þeir Samson af fángelsenu, og hann lek fyrer þeim, og þeir settu hann á millum tveggia stolpa.

26. Enn Samson sagde til þess ungmennis sem hann leidde vid hønd ser lát þú mig fara ad taka á þeim stolpum sem húsed stendur á, so eg meige stydia mig vid þá.

27. Enn húsed var alskipad bæde af mønnum og kvinnum; þar voru í því sama sinne samankomner

aller hofdingiar Philisteanna, og uppá þakenu voru nær þriar þusunder manns, og kvinnur, sem horfdu á, hvernenn Samson lek.

28. Enn Samson ákalladе Drottinn og sagde: Drottinn! Drottinn! minnstu mín, og styrk mig nú, Gud! ad þessu sinne, so ad eg meige umsinn hefna mín á Philisteis, fyrer mín bæde augu.

29. Og hann greip um þá midstolpa sem í midiu húsenu stódu, uppá hvera ad allt húsed var sett, og hellt ser um þá, annann med sinne hægre, annann med sinne vinstre hende.

30. Og sagde: deye ønd mín med þeim Philisteis. Og hann hneigde sig kroptuglega; þá fell húsed ofann á hofdingiana, og á allt fólked sem þar var inne, so ad fleyre voru af þeim daudu, sem deydu í hans andláte, enn þeir sem deydu á medan hann lífde.

31. Epter þetta komu hans brædur ofann þangad, og allt hans fødurs hús, og tóku hann upp, og færdu hann þadann, og grófu hann í síns fødurs Manoah grøf, á millum Zarea, og Esthaol. Hann var domare yfer Israel í tuttugu ár.

## 17. Capitule.

1. Þar var einn madur á fiallbygdum Ephraim, sem het Micha.

2. Hann sagde til sinnar modur: þá þusund og hundrad silfurpeninga, sem þú hefir tekid til þín, og svared og sagt fyrer mínum eyrum, siá! þeir enu somu peningar eru hiá mer, eg hefe teked þá til mín. Þá svarade hans moder: blessadur se minn sonur Drottni.

3. Sídann gaf hann sinne modur þá þusund og hundrad silfurpeninga aptur. Og hans moder sagde: eg hefe helgad Drottni þá peninga úr minne hende, fyrer minn son, so ad þar se gert af eitt líkneske og afgud, þar fyrer gef eg þer þá nú aptur.

4. Enn hann gaf sinne modur þessa peninga aptur. Þá tók hans moder tvø hundrud silfurpeninga, og feck þá einum gullsmidi: hann gerde henne eina líkneskiu og skúrgod; og þar epter var þad í Micha húse.

5. Og þesse madur Micha hafde so eitt Guds húss. Og hann gerde einn líkfyrtil og helgedom, og fyllte hendur á einum síunm syne, so hann var hans prestur.

6. A þeim tíma var engenn kongur í Israel, og hver gerde þad sem hønum þokte rett vera.

7. Enn þar var eitt ungmenne af Bethlehem Juda, á medal Juda kinþátta, og hann var einn Levite, og var þar framande.

8. Hann reiste frá þeim stad Bethlehem Juda, ad ferdast þangad sem hann kunne. Enn sem hann kom uppá fialled Ephraim, til húsa Micha, ad hann fære sinn veg,

9. Þá spurde Micha hann ad: hvadann komst þú? hann svarade hønum: eg em einn Levite af Bethlehem Juda, og geing þangad sem eg kann.

10. Micha sagde til hans: vert þú hiá mer; þú skallt vera minn fader, og minn prestur: eg vil gefa þer hvert ár tíu silfurpeninga, og tilskilenn klædnad, og þína fædu, og Levitenn fór þangad.

11. Og Levitenn geck þar ad, ad vera hiá manuenum, og hann hellt þennann unga mann líka sem einn son.

12. Og Micha fyllte Levitans hønd, so hann vard hans prestur, og var so í Micha húse.

13. Og Micha sagde: nú veit eg,

ad Drottinn mun gera mer til góda, fyrst ad eg hefe einn Levita fyrer kennemann.

## 18. Capitule.

1. A þeim tíma var engenn kongur fyrer Israel, og kinkvísl Dans leitade vid ad fá ser eina arfleifd, þar þeir mættu búa, þvi þeir høfdu eigi til þessa dags fenged erfdahluta á medal Israels ættkvísla.

2. Og Dans børn sendu út (menn) af sinne ætt, af sínum endemørkum, fimm strídsmenn, af Zarea, og Esthaol, til ad skoda og rannsaka landed, og søgdu til þeirra: fared og skoded landed. Og þeir komu á fialled Ephraim, til húsa Micha, og voru þar um nótt.

3. Enn á medan þeir voru þar hiá heimelis fólke Micha, þá þecktu þeir þess unga Levita raust, og þeir viku þangad, og søgdu til hans: hver hefir fært þig hingad? og hvad gerer þú her? og hvad hefir þú her?

4. Hann svarade þeim: so og so hefir Micha gert vid mig, og hann hefir leigt mig, ad eg se hans prestur.

5. Þeir søgdu til hans: Kære! spyr Gud ad, so ver meigum fá ad vita, hvert þesse vor vegur, sem ver ganngum, skal luckast?

6. Presturenn svarade þeim: fared í burt med fride, ydar vegur, sem þer ganged, er rettur fyrer Drottni.

7. Sídan gengu þesser fimm menn af stad, og komu til Lais, og sáu, ad þad folk sem þar bió var athugalaust, þvilíkast sem þeir Zidoniar, kirrt og óhrædt, og þar var enngenn í lande, sem þeim illt gerde, eda þeirra Herra være, og þeir voru í fiarlægd vid þá Zidonia, og høfdu ecke ad gera med folk.

8. Og þeir komu til sinna brædra í Zarea, og Esthaol, og þeirra brædur søgdu til þeirra: hverssu geugur ydur? þeir søgdu: tøkum oss upp og førum upp til þeirra, þvi ver høfum skodad landed, þad er miøg godt,

9. Þar fyrer fared sem skiotast, og vered eigi later á þessa ferd, so þer komed ad eignast þad land. Og sem þer þar komed, munud þer koma til ugglausra manna,

10. Enn landed er bæde vídt og breidt, og Gud hefir gefed þad í ydrar hendur, já, soddann eitt plats þad ecke vantar, af øllu þvi sem á jørdunne er.

11. Sídan fóru þar frá af Dans ættmønnum, af Zarea, og Esthaol, sex hundrud manna bryniader, med sínum vopnum, til bardaga,

12. Og þeir reistu upp, og settu herbúder í Kiriath Jearim í Juda, þar af kølludu þeir þann stad, herbúder Dan, allt til þessa dags, sem liggur til baka vid Kiriath Jearim.

13. Og þeir gengu þadann, og á fialled Ephraim, og komu til húsa Micha,

14. Þá søgdu þeir fimm menn, sem útgengner voru ad skoda þad land Lais, og søgdu til sinna brædra, vited þer og, ad í þessu húse er einn líffyrtell, helgedomur, líkneske, og skúrgod? nú meiged þer hugsa ydur um, hvad þer skulud gera.

15. Þeir viku þar inn, og komu til húss þess unga Levita, sem var í Micha húse, og heilsudu hønum vinsamlega,

16. Enn þau sex hundrud manna vopnader med sínum harneskium, af børnum Dans, stódu fyrer portdyrum úte.

17. Og þeir fimm menn, sem fared høfdu ad niósna um landed, fóru upp, og komu þangad, og tóku

líknesked, líkfyrtelenn, helgedomenn, og afgudenn, enn á medann (þetta skede) stód presturenn fyrer portenu, hiá þeim sex hundrudum vopnudum, med þeirra harneskium.

18. Enn sem þeir adrer voru komner í Micha hús, og tóku bilæted, líkfyrtelenn, helgedomenn, og afgudenn, þá sagde presturenn til þeirra: hvad gered þer?

19. Þeir sverudu hønum: þeige þú, og hallt þínum munne, og far med oss, so þú sert vor fader og prestur. Er þad þer betra, ad þú sert prestur í eins manns húse, edur á medal heillrar kinkvíslar og ættar Israels?

20. Þetta þocknadest prestinum vel, og hann tók bæde líkfyrtelenn, helgedomenn, og bilæted, og kom í før med følkenu,

21. Og þá þeir sneru ser, og af stad fóru, sendu þeir undann ser børn og búsmala, og allt þad sem þeir høfdu dyrmætt.

22. Og sem þeir komu langt frá Micha húse, þá kølludu þeir menn upp sem voru í húsunum, þeim sem stódu hiá Micha húse, og fóru epter Dans børnum, og kølludu epter Dans børnum,

23. Enn þeir sneru sínum andlitum tilbaka, og søgdu til Micha: hvad er þer, ad þú hrópar so?

24. Hann svarade: þer hafed teked mína Gude, þá sem eg hefe gert, og so prestenn, og erud farner í burt, hvad hefi eg nú epter? og spyred þer þó ad, hvad mig vantar?

25. Enn Dans børn søgdu til hans: lát eigi heyra þína raust hiá oss, so ad reide folksins falle eigi yfer þig, og glater þú lífe þínu, og allt þitt hús,

26. Dans børn gengu sinn veg. Og sem Micha sá, ad þau voru hønum sterkare, snere hann ser, og kom aptur í sitt hús.

27. Enn þeir tóku þad sem Micha hafde gert, og prestenn þann sem hann hafde, og komu til Lais, til eins rolegs og ugglausts folks, og slóu þad med sverds eggium, og settu elld í stadenn, og uppbrenndu hann,

28. Og þar var engenn sem þeim kæme til hiálpar, þvi hann var langt frá Zidon, og høfdu enga høndlan med folki, og stadurenn lá í einum dal, sem liggur hiá Beth Rehob. Þar byggdu þeir borg, og biuggu þar í,

29. Og køllu du hana Dan, epter nafne Dans þeirra fødurs, sem var fæddur af Israel, og stadurenn het fyrr meir Lais.

30. Og Dans børn uppreistu þetta bilæte fyrer ser. Og Jonathan, sonur Gerson, sonar Manasse, og hans syner, voru prestar á medal ættar Dan, allt til þess tíma, sem þeir voru herteknir í burt flutter af landenu.

31. Og so settu þeir Micha bilæte upp, á medal sín, sem hann hafde gera láted, so leinge sem Guds hús var í Silo.

## 19. Capitule.

1. Í þann tíma var engenn kongur yfer Israel. Og einn Levitiskur madur var framande hiá sídu fiallbygdanna Ephraim, og hann hafde teked ser eina frillu til kvinnu, af Bethlehem Juda,

2. Og sem hún hafde framed hór hiá hønum, so hliop hún frá hønum í síns fødurs hús, til Bethlehem Juda, og var þar í fióra mánade.

3. Enn bonde hennar tók sig upp, og fór epter henne, og villde tala vingiarnlega vid hana, og fá hana til sín aptur, og hann hafde med ser einn svein, og tvo asna. Og hún leidde hann í sitt fødurs hús.

Enn sem fader kvinnunnar sá hann, vard hann gladur, og tók vid honum.

4. Og hans mágur, kvinnunnar fader, hellt honum, so hann var hiá honum í þriá daga, og átu og druku, og voru þar um nottena.

5. A þeim fiorda deige bijuggu þau sig miøg snemma til, og hann stód upp og villde ferdast. Þá sagde faderenn kvinnunnar til síns mágs: lífga þitt hiarta ádur med litlu braude, og epter þad skulud þid ferdast.

6. Og þeir settust nidur, átu báder tilsamans, og druku. Og fader kvinnunnar sagde til mannsins, kære! blíf her þessa nott, og gled þitt hiarta.

7. Enn sem madurenn stód upp og villde ferdast, þá naudgade hans mágur honum, so hann var þar um nottena.

8. Enn fimmta dag, ad morgne, biöst hann til sinnar ferdar, snemmindis, og villde fara af stad, þá sagde faderenn kvinnunnar, kære! lífga þú ádur hiarta þitt, og lát oss tefia til kvølldz, og þeir neyttu báder samann.

9. Og madurenn bió sig, og villde ferdast med sinne frillu, og med sínum þenara. Enn hans mágur, kvinnunnar fader, sagde til hans: siá! dagurenn er lidenn, og komed er ad kvøllde, vertu her þessa nótt, siá! her er enn herberge þennann dag: vertu her í nótt, og gled þitt hiarta, á morgun standed árla upp, og ferdist yckrau veg, til þíns heimilis.

10. Enn madurenn villde eigi vera þar um nottena, helldur bió sig til, og fór af stad og kom til Jebus, þad er Jerusalem, med báda sína asna klifiada, og hans frilla med honum.

11. Sem þau komu nú nær Jebus, leid miøg á dagenn, og sveinnenn sagde til síns Herra: kære! ferdast framm, og lát oss víkia í þennann Jebusita stad, og vera þar í nott.

12. Enn hans Herra sagde til hans: eige vilum ver koma í þennann framande stad, sem eigi er af Israels børnum, helldur skulum vid fara yfer um til Gibea.

13. Og hann sagde til síns sveins: hrada þer, so ver komunst til einhvers stadar ad vera í nott, annad hvert í Gibea, edur í Rama.

14. Og þeir ferdudust aframm, og fóru sína leid, og sól rann til vidar þá þeir komu miøg so ad Gibea, sem liggur under Benjamin.

15. Og þeir viku þar inn, ad þeir kæmust inn, og væri þá nott í Gibea, og er hann kom þar inn, sette hann sig nidur á stræte stadarins, þvi har var eugenn sem þeim villde liá herberge um nottina.

16. Og siá, þar kom einn gamall madur ad kvøllde, frá sínu erfide, af akre, hann var og so af Ephraims fialle, og einn framande í Gibea, enn fólked þess stadar voru børn Jemini.

17. Og sem hann upplypte sínum augum, og sá þann vegfaranda mann á strætenu, þá sagde hann til hans: hvert villtu fara, eda hvadann komst þú hingad?

18. Hann svarade honum: ver førum frá Bethlehem Juda, og førum nú til fiallshlídar Ephraim, þvi þar á eg heima: eg fór til Bethlehem Juda, enn fer nú til Drottins huss, og engenn vill liá mer herberge.

19. Ver høfum hey og fódur til vorra asna, braud og vín handa mer, og minne ambátt, og sveinenum sem med þínum þenara fer, so oss vantar ecke.

20. Hinn gamli madur svarade: fridur se med þer, allt hvad sem ad þig vantar, það skalltu finna hiá mer, ligg þú eigi í nótt á opnu stræte.

21. Og hann leidde hann í sitt hús, og gaf hans øsnum fódur; og þau þvodu sínar fætur, átu og druncku.

22. Og sem þeirra hiørtu voru nú glød, siá! þá komu þar borgarmenn, arger skalkar, umkringdu húsed, bordu á dyrnar, og søgdu til þess gamla manns, sem var húsbondinn: leid þann mann út hingad, sem komenn er í þitt hús, so ver meigum kenna hann.

23. Enn madurinn, húsbondi hússins, geck út til þeirra, og sagde til þeirra: nei, míner brædur, gered eigi so illt (verk) fyrst ad þesse madur er komenn í mitt hús, gered eigi þvílíkt heimskupar.

24. Siá! eg hefe eina dotter, sem enn nú er ein jungfru, og þesse madur hefir frillu, þær vil eg leida út til ydar, vanvirded þær, og breited vid þær, so sem ydur lyster, enn gered eigi soddann heimskupar þessum manne.

25. Enn fólked villde eigi hlyda hønum. Þá tók madurenn sína frillu, og leidde hana út til þeirra, og þeir kenndu hennar, og misþirmdu henne alla þá nott, allt til morguns,

26. Og sem morgunrodenn upprann, þá letu þeir hana fara. Sídann kom kvinnann snemma morguns, sell nidur fyrer þess manns húsdyrum, þar hennar Herra var inne, og lá þar þangad til ad biart var.

27. Enn sem hennar húsbonde stód upp um morgunenn, og upplet dyrnar á húsenu, og geck út, ad reisa sinn veg, siá! þá lá hans frilla þar fyrer húsdyrunum, og hennar hendur á þrøskolldenum.

28. Hann sagde til hennar, statt upp, ver vilum ferdast. Enn hún svarade engu. Þá tók hann hana upp á asnann, bió sig til, og ferdadest til síns stadar.

29. Enn sem hann kom nú heim, tók hann einn kníf, og geck til sinnar frillu, og hlutade hana í sundur, med beinum og ollu, í tolf stycke, og sende þau í øll Israels landamerke.

30. Enn hver sem það sá, hann sagde: þvílíkt hefir eigi sked edur sed verid, sídann Israels børn fóru af Egyptalande, allt til þessa dags. Nu hugsed ydur her um, og gefed til rád, og seiged framm.

## 20. Capitule.

1. Epter þetta fóru Israels børn út, og søfnudust samann, so sem einn madur være, frá Dan, og allt til Berseba, og af lande Gilead, til Drottins í Mizpa,

2. Og þeir yppurstu af þvi øllu fólke, sem voru fyrer allre Israels ætt, gengu til samans í Guds samkundu, fiøgur hundrud þusundir manns, fotgøngulid, sem útdrogu sverd,

3. Enn børn Benjamins heyrdu ad Israels børn voru komenn til Mizpa. Og Israels børn søgdu: seiged framm, hvernenn þetta vonda (verk) er sked.

4. Þá svarade Levitenn, þeirrar kvinnu bonde, sem ad drepenn var, og sagde: eg kom í Gibea í Benjamin, med minne frillu, ad vera þar um nott,

5. Þar risu borgarmenn Gibea upp imóte mer, og umspenntu húsed um nóttena, og ætludu ad drepa mig, þeir skømmudu mína frillu so ad hún dó.

6. Sídann tók eg mína frillu, og

skipte henne í sticke, og sende eg þau út um aull Israels erfda endemerki, því þeir høfdu gert einn skammarhlut og heimskupar í Israel.

7. Siá, þer erud þar øll Israels børn, rádgest um, og gered nockud her til.

8. Epter þetta tilbió sig allt fólked, so sem einn madur, og sagde: Þar skal engenn madur fara til síns heimelis, og eigi hverfa aptur í sitt hús.

9. Helldur vilum ver nú þetta gera vid Gibea, ver skulum taka hlute.

10. Og taka tíu menn af hundrade, og hundrad af þusundi, og þusund af tíu þusundum, af øllum Israels ættkvíslum, ad þeir safni fædslum handa fólkenu, so ad þad fare og gere vid Gibea Benjamin, epter því sem þeirra skammarlegt verk er, sem þeir hafa framed í Israel.

11. Sídann søfnnudust aller Israels menn til stadarins, líka sem einn madur være, og gerdu samband sín á mille.

12. Og Israelis ættkvísller sendu menn til alls Benjamins kynþáttar, og letu seigia þeim: hvad er þad fyrer vondska, sem sked er hiá ydur?

13. So frammseled nú þá menn, þá illu skalka í Gibea, so ver meigum slá þá í hel, og burt taka so þad vonda af Israel. Enn Benjamins børn villdu eigi hlyda raustu sinna brædra Israels barna,

14. Helldur komu þeir saman af borgunum, til Gibea, til ad fara í stríd á móte Israels børnum.

15. Enn børn Benjamins voru talenn á þeim deige af stødunum, sex og tuttugu þusundir manns, sem drógu út sverd, fyrer utann þá borgarmenn Gibea, sem voru talder siø hundrud einvala lids,

16. Og á medal þessa folks voru siø hundrud menn útvalder, sem voru aurfhendter, og kunnu ad hæfa eitt hár med sløngum, so þeim brást þad eigi.

17. Enn þeir af Israel (fyrer utann þá sem voru af Benjamin) voru talder fiogur hundrud þusundir manns, sem báru sverd, og ærer voru aller til bardaga,

18. Þeir biuggu sig til, og gengu upp til Guds húss, spurdu Gud (ráda) og søgdu: hver skal vera vor høfdinge, og uppbiria bardaga þennann, í móte børnum Benjamins? Drottinn sagde: Juda skal þad uppbiria.

19. So biuggu Israels børn sig árlamorguns, og settu sínar herbúder fyrer Gibea.

20. Og hver madur af Israel geck út ad beriast vid Benjamin, og þeir skipudu ser nidur, til ad strída á Gibea,

21. Þá fellu Benjamins børn út af Gibea, og felldu á þeim deige af Israel tvær og tuttugu þusunder manna.

22. Enn Israels manna folk effldu stirk, og biuggust enn aptur til bardaga, í þeim sama stad, sem þeir høfdu útbuest hinn fyrra dag,

23. Og Israels børn gengu upp og gretu fyrer Drottni allt til kvollds, og þeir adspurdu Drottinn, og søgdu: skulum ver framarmeir fara nær, ad beriast vid Benjamins born, vora brædur? Drottinn svarade: fared upp til þeirra,

24. Og sem Israels børn drógu á móti Benjamins børnum, þann annan dag,

25. Þá fellu Benjaminitar út af Gibea, á þeim deige í móts vid þá, og slóu enn átian þusunder manna, af Israels børnum, alla vopnfæra menn.

26. Epter þetta fóru øll Israels

børn upp, og allt fólked, og komu til Guds húss, og gretu, og voru þar fyrer Drottni, og føstudu þann dag til kvollds, og offrudu brenne fórnum, og þacklætis offre fyrer Drottni.

27. Og Israels børn adspurdu Drottinn; enn sáttmáls ørk Drottins var í þeim stad, á þeim tíma.

28. Og Phinees, Eleasars sonur, Aarons sonar stód fyrer honum á þeim sama tíma, og þeir søgdu: skulum ver framar útfara ad beriast vid Benjamins børn vora brædur, eda skulum ver afláta? Drottinn sagde: draged þar upp, þviad á morgun vil eg gefa þá í ydrar hendur.

29. Og Israels børn settu launsátur allt í kring um Gibea,

30. So dróu Israels børn út á þeim þridia deige upp á móte Benjamins børnum, og biugguſt ad strída á Gibea, eins so sem ádur tvisvar.

31. Þá fóru Benjamins børn út á móts vid fólked, og gáfu sig frá stadnum, og tóku til ad slá og særa nockra menn af fólkenu, so sem þeir gerdu ádur fyrre tvær reisur út í mørkenne, á tvo vegu (sá eine liggur til BethEl, enn annar til Gibea) og slóu nær þriátíu menn af Israel.

32. Þá hugsudu Benjamins børn: þeir falla fyrer oss sem fyrr. Enn Israels børn søgdu: flyum ver, so ver meigum locka þá frá stadnum, út á veguna.

33. Sídan biost Israels folk, hver einn af sínum stad, og biuggu sig til bardaga í Baal Thamar.

34. Og Israels launsátur kom framm af sínum stad, af þeim heller Gaba, og komu til Gibea tíu þusundir manna, valed lid af øllum Israel, so ad þar vard hardur bardage. Enn þeir vissu eigi ad óluckann stód fyrer þeim.

35. So sló Drottinn Benjamin fyrer Israels børnum, so ad Israels børn fordiørfudu á þeim deige fimm og tuttugu þusunder, og hundrad menn, af Benjamin, sem aller báru sverd.

36. Þviad þá Benjamins børn sáu fall sinna manna, þá gáfu Israels menn þeim rúm, þvi þeir treystu uppá þad launsátur, sem þeir høfdu til sett hiá Gibea.

37. Og þeir í launsátrenu flyttu ser og so, og komu framm á móte Gibea, nálgudu sig þangad, og slóu þann allann stad med sverds egg-um.

38. Enn Israels menn, og þeir sem í launsátrenu voru, høfdu merke sett med ser, ad þeir skylldu falla yfer þá med sverde, þá reykurenn gæfe sig upp af stadnum.

39. Enn sem Israels menn sneruſt vid í bardaganum, og Benjamin tók til ad slá, og særdu nær þriátíu menn af Israel, og hugsudu; þeir liggia fallner fyrer oss, so sem í fyrre bardøgum,

40. Í þessu bile tók reykur strax upp ad koma af stadnum. Enn Benjamin snereſt á hæl, og siá! ad reykenn og logann af stadnum lagde upp í himenenn.

41. Og Israels menn sneru ser og so vid, og skelfdu menn Benjamin, þviad þeir sáu, ad ólucka hafde hitt uppá sig.

42. Og sneru undan Israels mønnum, á þann veg sem liggur til eydemerkur, enn stríded sokte epter þeim, þar til þeir, sem af borgunum voru, fordiørfudu þá millum sín,

43. Og þeir umkringdu Benjamin, og elltu þá allt til Menuah, og undertrádu þá allt ad Gibea, mót austre,

44. Og þar fell af Benjamin átian þusund manna, þeir aller voru strídsmenn.

45. Þá sneru þeir ser á flotta, til eydemerkur, ad þvi biarge Rimmon. Og á þeim sama veige slóu þeir fimm þusund manna, og þeir sóktu bak epter þeim til Gideom, og slóu af þeim tvær þusunder manns.

46. So ad á þeim deige fellu af Benjamin fimm og tuttugu þusunder, vopnfærer og hinir villdustu strídsmenn.

47. Ad eins sex hundrud manns sneru ser og flúdu undann til eydemerkur, til þess biargs sem kallast Rimmon, og voru þar fióra mánade.

48. Og Israels menn komu aptur til barna Benjamin, og slóu þad sem í borgenne var, med sverds eggum, bæde følk og fenad, og allt þad sem þar fannst inne, og allar borger, sem þeir fundu, brenndu þeir med ellde.

## 21. Capitule.

1. Israels menn høfdu svared í Mizpa, og sagt: þar skal engenn gefa þeim Benjaminitis sína dotter til eignarkvinnu.

2. Og fólked kom til Guds húss, og var þar fyrer Gude allt til kvøllds, og þeir upp hófu sínar radder, og gretu beisklega,

3. Og søgdu: o Drottinn Gud af Israel! þvi mun þvílíkt hafa sked í Israel, ad á þessum deige er orded einnre kinkvísl færra í Israel?

4. Um morgunenn epter tók fólked sig árla upp, og byggde þar eitt alltare, og offrudu brennefórnum, og þacklætis offre.

5. Og Israels børn søgdu: hvar er sá nockurstadar af Israels kinkvíslum sem eigi er komenn hingad upp med almúganum, til Drottins? þvi þar var gerdur einn stór eidur, ad hver sem eigi kæmi upp til Drottins í Mizpa, sá skyllde vissulega deya,

6. Enn Israels børn idrudust vegna Benjamins síns brodurs, og søgdu: í dag er ein kinkvísl úrfallenn í Israel,

7. Hvernenn skulum ver bera oss ad, ad þeir sem epter eru meige kvongast? þvi ver høfum svared vid Drottinn, ad ver skulum eigi gefa þeim kvinnur af vorum dætrum.

8. Og þeir søgdu: hvar eru nockur stadar af Israels ættkvíslum þeir sem eigi hafa upp komed til Drottins í Mizpa. Og siá! þar var engenn, í almúgans herbúdum, af Jabes í Gilead,

9. Þviad þeir tøldu fólked, og siá! þar var þá engenn borgare af Jabes í Gilead.

10. Þá sende almúgenn tolf þusund ir manns þangad af strídsmønnunum, budu þeim og søgdu: fared og sláed med sverds eggum Jabes borgara í Gilead med konum og børnum.

11. Þó skulud þer so gera, allt þad sem er karlkins, og allar þær kvinnur sem menn hafa kennt, skulu þeir foreyda.

12. Og þeir fundu hiá þeim borgurum í Jabes, í Gilead, fiøgur hundrud píkur sem voru meyar, og eigi høfdu leiged hiá mønnum; þær høfdu þeir til herbúda í Silo, sem liggur í lande Canaan.

13. Þá sende allur almúgenn af stad, og let tala vid Benjamins børn, sem voru á þvi biarge Rimmon, og kølludu þá fridsamlega.

14. So komu Benjamins børn aptur á þeim tíma. Og þeir gáfu þeim þær kvinnur, af Jabes kvinnum í Gilead, sem þeir høfdu epter, og eigi fundu þeir so fleyre.

15. Pá idradest fólked yfer Benjamin, ad Drottinn hafde gert eitt skard i Israels kinkvísler.

16. Enn þeir ølldungar fyrer almúganum søgdu: hvad vilum ver tilgera, svo ad þeir sem epter eru meige og fá eigenkonur? þviad kvinnur í Benjamin eru afmádar.

17. Og þeir søgdu: þeir sem epter eru af Benjamin meiga þó hallda sínum arfe, ad ein kinkvísl verde eigi med øllu afmád af Israel.

18. Enn ver meigum eigi gefa þeim vorar dætur til eigennkvenna, þvi Israels børn hafa svared og sagt: bølvadur se sá sem gefur þeim Benjaminitis ecktakvinnu.

19. Og þeir søgdu: siá! þar er Drottins árleg hátíd í Silo, sem liggur nordur frá BethEl, mót austre, á þeim veige sem liggur upp frá BethEl til Sichem, í sudur átt mót Libona.

20. Og þeir budu Benjamins børnum, og søgdu: fared og ligged á leyndum í víngørdunum,

21. Og þá þer siáed, ad þær dætur af Silo ganga út, hver epter annare, í Dans, þá hlauped sem snarast úr víngardgørdunum, og take hver ser eigennkonu af Silo dætrum, og fared svo aptur í Benjamins land.

22. Enn þá þeirra fedur, eda brædur, koma, og klaga þetta fyrer oss, þá vilum ver seigia til þeirra: vered þeim náduger, þvi ver høfum eigi teked þær med stríde, enn þer villdud eigi gefa þeim þær, þad er nú ydar skulld.

23. Benjamins børn gerdu svo, og tóku kvinnurnar epter sínu manntale, úr dansenum, þær sem þeir ræntu, og ferdudust burt þadann, og bigguu í sínum erfdahluta, byggdu borger, og bigguu í þeim,

24. Svo fóru Israels børn þadann á þeim tíma, hver til sinnar kinkvíslar og ættar, og þeir ferdudust þar frá, hver til sinnar arfleifdar.

25. Á þeim tíma var engenn kongur í Israel, og gerde hver þad sem hønum þokte rett vera.

Ender á Domara Bokenne.

# Bokenn Ruth.

## 1. Capitule.

1. Á þeim tíma þá domendur stiornudu, vard miked hallære í landenu. Og einn madur af Bethlehem Juda, flutte sig í burt í land þeirra Moabitarum, medur sinne kvinnu og tveimur sonum,

2. Hann het Eli Melech, og hans kvinna Naemi, og hans tveir syner, Mahlon og Chil Jon, þeir voru Ephratear, af Bethlehem Juda. Enn sem þau komu í land þeirra Moabitarum, stadnæmdust þau þar.

3. Og Eli Melech, bonde Naemi, andadest. Enn hún var epter med sínum tveimur sonum,

4. Þeir tóku ser Moabitiskar eigennkonur; ein þeirra het Arpa, enn ønnur Ruth. Og sem þeir høfdu búed þar hardtnær í tíu ár,

5. Þá aundudust þeir báder Mahlon og Chil Jon, og kvinnann yfirlifde báda sína sonu, og sinn bonda.

6. Þá tók hún sig upp med sínum tveimur sonakvinnum, og ferdadest aptur af lande Moab, þvi hún hafde frett þad í land Moabitarum, ad Drottinn hafde vitiad síns folks, og gefid þvi braud.

7. Og hún geck út af þeim stad, sem hún hafde vered, og bádar hennar sonar kvinnur med henne. Og sem hún geck nú á veigenn, ad hún kæme aptur í land Juda.

8. Þá sagde hún til beggia sinna sonakvenna: fared og snúed aptur, hver yckar til húsa sinnar modur. Drottinn veite yckur miskun, so sem þid hafed gert þeim frammlidnu, og so mer,

9. Drottinn gefe yckur, ad þid finned hvíld, hver í síns manns húse, hún mynnteſt vid þær. Þá upphófu þær sínar radder og gretu.

10. Og søgdu til hennar: vid vilum fara med þer til þíns folks.

11. Enn Naemi sagde: snúed aptur, mínar dætur, hvar fyrer viled þid fara med mer? hvad mun eg geta børn í mínum kvide her epter, sem mættu verda yckar menn?

12. Snúed aptur, mínar dætur, og fared burt, þvi eg em nú ósgømul ad giptast manne. Og þó ad eg segde: þad er til vonar, ad eg take mann á þessare nóttu og fæde børn,

13. Hvernenn geted þid þó beded so leinge, þar til þeir eru stórer? Þvi viled þid dvelia þvi ad giptast aptur? eigi so, mínar dætur, mig aumkar miøg yfer yckur, þviad hønd Drottins hefir mig útgeinged.

14. Þá upphófu þær sína raustu, og gretu enn meir, og Arpa mynnteſt vid sína mágkonu; enn Ruth stadnæmdeſt hiá henne.

15. Þá sagde hún: siádu, þín mágkona snere aptur til síns folks, og til síns Guds, snú þú nú aptur med þinne mágkonu.

16. Ruth svarade: tala þú eigi þar um, ad eg mune skilia vid þig, og fara frá þer; hvert sem þú fer, þangad vil eg og so fara; hvar þu ert, þar em eg og einnenn; þitt folk er mitt folk, og þinn Gud er minn Gud.

17. Hvar þú deyr, þar dey eg, og þar vil eg jørdud vera: Drottinn gere mer þad og þad, daudenn skal ockur skilia.

18. Enn sem hún nú sá, ad henne var fast í gede ad fylgia henne, þá hætte hún ad tala vid hana þar um.

19. So gengu þær bádar tilsamans, þar til þær komu til Bethlehem. Og sem þær gengu inn í stadinn, hrærdeſt øll borgenn yfer þeim, og sagde: er þad Naemi?

20. Enn hún sagde til þeirra: kalled mig eigi Naemi, helldur Mara, þviad sá almáttuge hefir miøg hrellt mig,

21. Eg fór full (rík) í burtu, enn Drottinn hefir fært mig fátæka heim aptur. Þvi kalled þer mig þá Naemi, þar ad Drottinn hefir so læckad mig, og sá almáttuge hefir hrellt mig?

22. Þetta skede á þeim tíma (árſins) þá ed bygg-kornskurdurenn tók til, þá Naemi og hennar sonarkona, Ruth hin Moverska, komu aptur, af landeun Moabitarum, til Bethlehem.

## 2. Capitule.

1. Og þar var einn madur, hann var náenn ad frændseme vid mann Naemi, af ætt Eli Melechs, hann het Boas; hann var einn miøg ríkur madur.

2. Og Ruth, sú Moverska, sagde til Naemi: lát mig fara út um akra, ad eg samanlese øxenn, epter þeim sem eigi amast vid mer. Hún sagde til hennar: far þú mín dotter.

3. Hún fór af stad, kom og tínde øxenn epter kornskurdar mønnunum akursins. Enn so bar til, ad þennann sama akur átte Boas, frænde Eli Melechs.

4. Og siá! í þessu bile kom Boas frá Bethlehem, og kvadde so korn-

skurdar menn sína, vere Drottinn med ydur. Þeir svara: Gud blesse þig.

5.Og Boas mællte til síns sveins, sem var settur yfer kornskurdar mennnena: hverum heyrer þessi stulka til?

6.Sveinnenn,sem settur var yfer kornskurdar mennenna,svarade og sagde: Þad er sú Moverska kvinna, sem er komenn aptur med Naemi, af lande Moabitarum.

7. Þvi hún sagde: bid eg ad þú leyser mer ad safna tilsamans, og upp ad lesa á medal bindenanna, epter kornskurdarmønnunum, so kom hún her, og hefir staded her frá morgne og inn til þessa, og var eigi nema litla stund heima.

8.Þá sagde Boas til Ruth: heyrdu mín dotter: þú skallt eigi fara um annann akur ad safna saman, og gack eigi helldur hedann, helldur fylg þú þionustu stulkum mínum,

9.Og siá til hvar þær skera kornid af akrenum, og gack epter þeim, eg hefe boded mínum þenurum, ad engenn kome vid þig. Og ef þig þyrster, þá gack ad kerenu og dreck, sem míner þenarar ausa af.

10. Ruth fellur þá framm á sína ásionu, og tilbad á jørdu, og sagde til hans: med hveriu hefi eg þvilíka nád funded fyrer þínum augum, ad þú þecker mig so, þar eg em ein útlend kvinna.

11. Boas svarade, og sagde til hennar: sagt er mer allt hvad þú hefir gert vid þína mágkonu, epter frafall þíns bonda, ad þú hefir yfergefed þinn fødur, og þína modur, og so þitt fødurland, og hefir fared til þess folks, sem þú ádur þeckter eigi.

12. Drottinn umbune þer þinn gerning, og þín laun skulu vera fullkomenn hiá Drottni Israels Gude, til hvers ad þú ert nú komenn, ad hafa skiól under hans vængum.

13. Hún svarade: minn Herra! lát mig finna nád í þínu auglite, þvi þú hefir huggad mig, og blídlega talad vid þína ambátt, þar sem eg má þó eigi samvirdast einnre af þínum ambáttum.

14. Boas mællte til hennar: Þá máltídar tímenn er, þá kom hingad, og et braud, og dreyp þínum bita í edik. Og hún sette sig utann hiá kornskurdar mønnunum. Enn hann lagde steikt ax fyrer hana, og hún át, og vard mett, og leifde af.

15. Og sem hún stód upp saman ad tína, þá baud Boas sínum sveinum, og sagde: láted hana og so safna saman á medal bindenanna, og gerid henne eigi kinnroda.

16. Láted og nockud ei oviliande epter verda, so hún meige saman lesa þad, og engenn skal avíta hana þar fyrer.

17. So samanlas hún um akurenn, allt til kvøllds, og barde kornid af halmenum, sem hún hafde saman lesed, og þad var nær eitt Epha med bygg,

18. Hún tók þad upp, og kom í stadenn, og hennar mágkona sá þad hún hafde aflad; hún let og framm, og gaf henne þær vistarleyfar þar af hún hafde sadst.

19. Þá mællte mágkona hennar til hennar: hvar samansafnader þú í dag, og hvar hefir þú erfidad? blessadur se sá madur er þig þeckte. Enn hún sagde sinne mágkonu, hiá hverum hún hafde unned, og sagde: sá madur heiter Boas, hiá hverum eg hefe í dag unned.

20. Og Naemi sagde til sinnar sonar konu: blessadur vere hann fyrer Drottni, þvi hann hefir eigi

yfergefed sína miskunsemi, hverke vid þá lifendu, ne þá frammlidnu. Og Naemi sagde til hennar: þesse madur er frænde vor, og er vor erfinge.

21. Ruth sú Moverska svarade: hann sagde og þad til mín: þú skallt fylgia mínum sveinum, þar til loked er ollu akurverke.

22. Naemi sagde til Ruth sinnar sonarkonu: betra er, mín dotter, ad þú ganger út med hans ambáttum, so ad engenn meige tala þer vondt til á ødrum økrum.

23. Sídann fylgde hún ambáttum Boas, og hún safnade saman, þar til bæde byggi og hveite var loked ad uppskera, og kom aptur til mágkonu sinnar.

## 3. Capitule.

1. Og Naemi, hennar mágkona, sagde til hennar: mín dotter! eg vil leita þer hvíldar, so ad gott rád gerdest fyrer þer,

2. Þesse Boas vor frænde, hiá hvers ambáttum þú hefir vered, hann vinsar bygg sitt í nótt, í sínum lafagarde.

3. Þar fyrer skallt þú laugast, og smyria þig, og klæda þig, og gack ofann í lafagardenn, so ad engenn þecke þig, þar til þeir hafa afeted og drucked,

4. Enn þá hann leggur sig, þá hygg þú ad vandlega þeim stad hvar hann legst; kom sídan og lypt upp (ábreidunne) ad hans fótum, og legst þar nidur, so mun hann seigia þer, hvad þú skallt gera,

5. Ruth sagde til hennar: allt hvad þú seiger mer, þad vil eg gera.

6. Og hún geck nidur í lafagardenn, og gerde allt so sem hennar mágkona hafde boded henne.

7. Enn sem Boas hafde eted og druckid, var hans hiarta gledekennt, fór og lagde sig á bak vid einn bindena hladà. Ruth kom hliodlega, og lypte upp (ábreidunne) ad fótum hans, og lagdest nidur,

8. Enn sem nú var mid nótt, kom ótte yfer mannenn, og hrøck saman, og siá! ad kvinna lá til hans fóta.

9. Og hann sagde: hver ert þú? hún svarade: eg em Ruth, þín þiónustu kvinna, breid þú þína vænge yfer þína þiónustu kvinnu, þviad þú ert erfingenn.

10. Enn hann sagde: blessud sertu fyrer Drottne, mín dotter; þú hefir gert þá seinne miskun stærre þeirre hinne fyrstu, ad þú hefir eigi fared epter ungum mønnum, hverke ríkum ne fátækum.

11. Nú, mín dotter, óttast eigi, allt þad þú seiger, vil eg gera þer, þvi allur minn borgar lydur veit, ad þú ert dygdarrík kvinna.

12. Nú er þad satt, ad eg em erfingenn, þó er þar annar nánare enn eg em,

13. Vert þú her í nótt; vile hann taka þig á morgun, þá er vel, enn ef hann lyster ei ad taka þig, þá vil eg taka þig, so sannarlega sem Drottinn lifer; sof þú til morguns.

14. Og hún sofnade til morguns hiá hans fótum. Og hún stód upp, fyrr enn nockur þeckte annann. Og hann hugsade: engenn skal fá þetta ad vita, ad ein kvinna kom í lafagardenn.

15. Og hann sagde: lát þú hingad yferklæde þitt, og greid þad til, hún gerde so. Og hann mællte sex mælera med byggi, og lagde þad upp á hana. Og hann kom í stadinn.

16. Enn hún fór til sinnar mágkonu. Hún sagde: hvernenn hefir til genged, mín dotter? og hún kunngerde henne allt þad sem þesse madur hafde gert henne,

17. Og sagde: þessa sex mælera

Byggs gaf hann mer, þvi hann sagde: þu skallt eigi koma med tvær hendur tómar heim til þinnar mágkonu.

18. Og hún sagde: bíd kirr, mín dotter, þar til þú veitst hver endalyckt áfellur her um, þvi þesse madur letter ei fyrr, enn hann hefir fullgert þad í dag.

## 4. Capitule.

1. Og Boas geck upp ad stadar portenu, og sette sig þar. Og siá! þá erfingenn geck þar framm hiá, talade Boas til hans, og sagde: kom og set þig nidur her edur þar. Og hann kom og settest nidur.

2. Og Boas tók tíu olldunga af borgar mønnunum, og sagde: sited nidur, og þeir settust nidur.

3. Þá mællte hann til erfingians: Naemi, sem aptur er komenn af lande þeirra Moabitarum, vill selia þann akurs part sem heyrde til vorum brodur Eli Melech.

4. Þvi þeinkta eg mer ad láta þad koma fyrer þín eyru, og ad seigia: villtu erfa hann, þá kaup hann her fyrer borgar mønnunum, og fyrer þeim olldungum míns folks. Enn viler þú eigi erfa þad, þá underviísa þú mer þad, so eg meige vita þad. Þviad þar er engenn erfinge nema þú, og eg nærstur þer. Hann sagde (akurenn) vil eg erfa.

5. Boas svarade: á hverum deige sem þú kauper þann akur af hende Naemi, þá hlytur þú og so ad taka þer til eigenkonu þá Moversku Ruth, hvera ad átte frammlidenn (frænde vor) so þú uppveker eitt nafn þeim hinum afgengna, á hans erfda parte.

6. Þá svarade hann: eigi get eg hann erfdt, so ad eg eigi fordiarfe kannske mína erfd, erfdu þad sem eg skyllde erfa, þvi eigi get eg erft þad.

7. Enn þad var forn venia í Israel, nær ed nockur villde eigi erfa, eda kaupa nockud gots, so ad allar saker skylldu standa stødugar, þá tók hann sinn skó af (sínum fæte) og gaf hann hinum ødrum, og þetta var vitnisburdur í Israel.

8. Og erfingenn sagde til Boas: kaup þu þad, og hann tók skóenn af sínum fæte.

9. Þá sagde Boas til olldunganna, og til alls folksins: þer erud til vitnis á þessum deige, ad eg hefe keypt af Naemi hende allt þad sem Eli Melech tilheyrde, og allt þad sem heyrde til Chil Jon, og Mahlon.

10. Her medtek eg og so Ruth þá Moversku mer til kvinnu, sem var Mahlons kvinna, so eg uppveke þeim frammlidna eitt nafn í sinne erfd, so ad hans nafn skule eige verda afmád medal hans brædra, ne af hans stad í portenu: þessa hlutar erud þer vitne á þessum deige.

11. Og allt fólked sem var í (stadar) portenu, og olldungarner, søgdu: þess erum ver vitne. Drottinn geri þessa kvinnu, sem ad kemur í þitt hús, eins og hann gerde Rachel og Lea, hverar bádar ad uppbygdu Israelis hús, og vaxi (hún) miøg í Ephrata, og verde prísud í Bethlehem.

12. Og verde þitt hús sem hús Perez, hvern ad Thamar fædde Juda, af þvi affspreinge sem Drottinn mun gefa þer, af þessare ungu kvinnu.

13. So geck nú Boas ad eiga Ruth, so hún vard hans kvinna. Og þá hann geck inn til hennar, þá gaf Drottinn henne, ad hún vard ólett, og fædde einn son.

14. Þá søgdu kvinnurnar til Naemi: lofadur se Drottinn, sem ad eigi villde láta þig erfingialausa

á þessum tíma, so ad hans nafn skyllde blífa í Israel.

15. Hann mun endurlífga þig, og annast þína elle, þvíad þin sonarkvinna, sem þig elskade, hefir fædt þann, sem þer er betre enn siø syner.

16. Og Naemi tók barned, og lagde þad í sitt skaut, og fóstrade þad upp.

17. Og hennar grannkonur gáfu því nafn, og søgdu: Naemi er fædt eitt barn, og nefnde hann Obed, hann er fader Isai, sem var Davids fader.

18. Þetta er Perez ætt. Perez gat Hezron,

19. Hezron gat Ram, Ram gat Amminadab.

20. Amminadab gat Nahesson, Nahesson gat Salma,

21. Salma gat Boas, Boas gat Obed.

22. Obed gat Isai, Isai gat David.

Ender bókarennar Ruth.

# Fyrsta Bok Samuelis.

## 1. Capitule.

1. Þar var einn madur af Ramathaim Zophim, af fiallbygd Ephraim, hann het ElKana, sonur Jerohams, sonar Elihu, sonar Thohu, sonar Zuph, sem var af Ephrat.

2. Hann átte tvær eigennkonur, ein het Anna, enn ønnur Peninna. Enn Peninna átte børn, og Anna átte engenn børn.

3. Og þesse madur fór af sinne borg í tilsettann tíma upp, ad tilbidia, og offra Drottni Zebaoth, í Silo, enn þar voru kennemenn Drottins á þeim tíma, Ophni og Phineas, þeir voru syner Eli.

4. Og þad skede so, á nockrum deige, ad ElKana færde fórner, þá gaf hann sinne kvinnu Peninna, og øllum hennar sonum og dætrum hlute.

5. Enn Aunnu gaf hann einn hlut med hriggd, þvi hann elskade Aunnu, enn Drottinn hafde byrgt hennar kvid,

6. Og hennar elia hrellde hana, og skapraunade henne, ad Drottinn hafde byrgt hennar kvid.

7. Þetta skede hvert ár, þá hann fieck upp til Drottins húss ad hún hrellde hana so, enn Anna gret, og neytte engrar fædu,

8. Þá sagde ElKana, hennar bonde, til hennar: Þvi grætur þú Anna? og neyter eigi matar, og þvi hriggest þitt hiarta so miøg? em eg þer eigi betre enn tíu syner.

9. Epter þad stód Anna upp, þá hún hafde eted og drucked í Silo (enn Eli kennemadur sat á stóle, fyrer dyrastolpa musteris Drottins.)

10. Og hún var miøg angrád af hiarta, bad til Drottins grátande,

11. Het á hann, og sagde: Drottinn Zebaoth! ef þú virdest á ad líta eymd ambáttar þinnar, og minnast mín, og gleyma eigi þinne ambátt, og viler þú gefa þinne ambátt einn son, þá skal eg gefa hann Drottni alla hans lífdaga, og engenn hárknífur skal snerta hans høfud.

12. Og sem hún leinge bad fyrer Drottni, þá hugde Eli ad hennar munne.

13. Þvi Anna talade í sínu hiarta, enn hennar varer hrærdust ad eins, enn eigi mátte heyra hennar raust. Þá ætlade Eli hana vera drucna,

14. Og sagde til hennar: hversu leinge villtu vera druckenn? lát vined renna af þer, það sem með þer er.

15. Anna svarade, og sagde: nei! minn Herra! eg em ein sorgfull kvinna, hverke hefi eg drucked vín ne áfeingann drick, helldur hefi eg útaused mínu hiarta fyrer Drottni.

16. Ætla þú mig eigi þína ambátt að vera sem eina óráðvanda konu, því allt her til hefe eg talað af mikeleik míns angurs og ecka.

17. Þá svarade Eli, og sagde: far þú í fride, Israels Gud mun veita þer þá bæn, sem þú hefir hann um bedid.

18. Hún sagde: lát þína ambátt finna náð fyrer þínum augum. So geck kvinnann heim aptur sinn veg, tók fæðu til sín, og var eigi síðann so hrigg.

19. Að morgne dags risu þau upp snemma, og sem þau höfðu tilbeðed fyrer Drottne, þá sneru þau aptur, og komu heim til Ramath. Og ElKana kennde sinnar kvinnu Anna, og Drottinn minntest hennar.

20. Og epter nockora daga vard hún þúngud, og fæðde einn son, og nefnde hann Samuel, því eg hefe (sagde hún) með bæn fenged hann af Drottni.

21. Og sem ElKana fór upp med öllu sínu hyske, að færa Drottni fórner, á veniulegum tíma, og heit sín,

22. Þá fór Anna eigi upp med, helldur sagde hún til síns húsbonda: þegar barned er af brioste vaned, þá vil eg skila hönum, so hann skal birtast fyrer Drottni, og se þar æfinnlega.

23. ElKana hennar húsbonde sagde til hennar: ger so sem þer synest best falla, og far ei fyrre upp enn þú hefir afvaned hann. Stadfeste Drottinn hvað hann hefir mællt. So var kvinnann heima, og hafde sinn son á brioste, þar til að hún afvande hann.

24. Epter það, þá hún hafde hann af brioste vaned, færde hún hann upp med þremur uxum, einum Epha miöls, og einum leigle víns, og bar hann inn í Guds hus í Silo. Og sveinnenn var þá enn ungur,

25. Og þeir sæfdu þann eina uxann, og færdu barned til Eli.

26. Og hún sagde: minn Herra! so sannarlega sem þín sál lifer, minn Herra! þá em eg sú sama kvinna sem að stód her fyrer þer, ákallande Drottinn.

27. Þann tíma sem eg bad um þennann svein. Nú hefir Drottinn veitt mer mína bæn, þá sem eg bad hann um.

28. Því gef eg hann nú Drottni aptur, alla hans lífdaga, með því hann er med bæn fengenn af Drottni. Og þau tilbáðu Drottinn í þeim sama stad.

## 2. Capitule.

1. Og Anna badst fyrer og sagde: mitt hiarta gledur sig í Drottni, og mitt horn er upphafed í Drottni, minn munnur opnadest miög yfer mínum óvinum, því eg gled mig í þínu hiálpræde.

2. Þar er engenn so heilagur sem Drottinn, og fyrer utann þig er engenn, og þar er engenn fóddann frelsare, sem vor Gud er.

3. Afleggeð ydart stóra dramb og hrósan: láted það gamla í burt af ydrum munne, því Drottinn er einn Gud, sem gaumgæfer það, og lætur eigi soddann fyrer-ætlan luckast.

4. Bogenn þeirra öflugu er brotenn, enn þeir veiku eru umgyrdter med styrkeika.

5.Þeir hiner ſøddu eru ſellder fyrer brand, enn þeir ſem lidu hungur hungra eigi meir, þar til ad ſú en óbirja fædde ſiø, og ſú ſem mørg børn hafde vard veik.

6.Drottinn deyder og lífgar, færer nidur til helvítis, og í burt aptur þadann.

7. Drottinn gerer fátækann og ríkann, hann lítelækar, og hann upphefur.

8. Hann upplypter þeim þurftuga úr duptenu,og upphefur þann fátæka úr ſaurnum, ſo hann ſete hann á medal høfgingiannna, og lætur hann erfa ſtól dyrdarennar, því ender veralldarennar heyrer Drottni til, og þar uppá ſette hann jardarkringluna.

9. Hann mun vardveita fætur ſinna heilagra, enn þeir ógudlegu ſkulu verda ad engu í mirkrenn, þviad ſtór magt hiálpar engum.

10. Þeir ſem keppa vid Drottinn ſkulu falla í grnnn: hann lætur ſkruggur af himine koma yfer þa. Drottinn mun dæma veralldarennar.enda, og mun gefa ſínum kononge magt, og upphefja horn ſíns hins ſmurda.

11.Og ElKana geck heim til Ramath í ſitt hús, og ſveinnenn var þenare Guds, hiá Eli kennemanne.

12.Enn ſynerEli voru iller ſkalkar, þeir hirdtu eigi um Drottinn, eige helldur um preſtanna rett vid fólked.

13. Þá nockur villde færa fórn, þá kom preſtſins þenare, á medann kiøted ſaud, og hafde í hende ſodkrók med þremur greinum,

14. Og ſtack hønum í ketilenn, pønnuna, eda pottinn, og hvad hellſt ſem hann færde upp med ſodkroknum,þad tók preſturenn þar af. So gerdu þeir vid allt Iſraelis folk, ſem kom til Silo.

15.Sømuleidis,ádur enn þad feita var upptendrad, þá kom preſtſins þenare til þeirra ſem fórnena færdu, og ſagde: gef mer kiøt ad ſteikja fyrer preſtinn, því hann vill eigi taka ſoded kiøt af þer, helldur hrátt.

16. Ef nockur ſagde þá til hans: lát þad feita verda upptendrad, ſo ſem ſidur er til í dag, og tak ſídann hvad þitt hiarta lyſter, þá ſvarade hann: þú ſkallt nú í ſtad gefa mer þad; enn viler þú eigi, þá ſkal eg taka þad med vallde.

17. Því var þeſſare ſveina ſynd miøg ſtór fyrer Drottni, því fólked laſtade Drottins matoffur.

18.Samuel þiónade fyrer Drottni, og ſveinnenn var umgyrdtur líſkyrtle af líne.

19. Þar til gerde hans moder hønum einn lítenn kyrtel, og færde hann hønum upp á ákvednum tíma, þá hún geck upp med ſínum bonda, fórner ad færa, í heyrelegann tíma.

20. Og Eli bleſſade ElKana og hans kvinnu, og ſagde: Drottinn gefe þer ſæde af þeſſare kvinnu, ſøkum þeirrar bænar ſem hún bad Drottinn. Og þau gengu til ſíns ſtadar.

21.Enn Drottinn vitiade Aunnu, ſo ad hún vard ólett, og fædde þriá ſonu, og tvær dætur. Enn ſveinnenn Samuel voxs upp fyrer Drottni.

22.Eli var ordenn miøg gamall, og heyrde allt þad ſem hans ſyner gerdu øllu Iſraels fólke, og ad þeir láu med þeim kvinnum, ſem þiónudu fyrer ſamkundu tialldbúdar dyrum.

23. Og hann ſagde til þeirra: því gered þer ſlíkt? því eg heyre yckar vondt athæfe af øllu þeſſu fólke.

24. Eigi ſo mín børn: þad er eigi gott ricte ſem eg heyre, þid komed Guds fólke til yfertródſlu.

25. Þó ad madur misgere vid mann, þá kann domarenn ad forlíka þad. Enn ef nockur ſyndgaſt imóte Drottni, hver kann þá ad bidia fyrer hann? enn þeir hlyddu eigi þeirra fødurs rauſtu, þviad Drottinn villde ſlá þá íhel,

26. Enn ſveinnenn Samuel geck og vogs, og var þeckur bæde Drottne og mønnum.

27. Enn þar kom einn Guds madur til Eli, og ſagde til hans: ſo ſeiger Drottinn: eg opennberade mig fyrer þíns fødurs húſe, þá þeir enn voru í Ægyptalande, í húſe Pharaonis.

28. Og eg útvalde mer hann af øllum Iſraels kinkvíſlum til kennemansſkapar, ad hann ſkyllde fœra fórner yfer mitt alltare, og upptendra reykelſe, og bera þann líkfyrtel fyrer mer: og eg gaf þínu fødurs húſe allann Iſraels barna elld.

29. Hvar fyrer bakſpyrner þú vid mínum fórnum og matoffre, ſem eg baud (ad offra) í tialldbúdennek og þú vegſamar þína ſonu, meir enn mig, ad þer aled ydur med þvi beſta af øllu matoffre Iſraels folks.

30. Og þvi ſeiger Drottinn Iſraels Gud: eg hefe talad, ad þitt hús, og þíns fødurs hús ſkyllde ganga fyrer mer æſinnlega, enn nú ſeiger Drottinn: þad ſe langt frá mer, helldur hver mig heidrar, þann vil eg heidra, og ſá mig forachtar, hann ſkal fyrerlitenn verda,

31. Siá! ſá tíme ſkal koma, ad eg ſkal ſundurbrióta þinn armlegg, og þíns fødurs húſs armlegg, og þar ſkal engenn gamall verda í þínu húſe.

32. Og þú ſkallt ſiá þinn mótſtandara í tialldbúdenne, í øllum þeim farſællegum hlutum ſem Iſrael ſkal tilfalla, og þar ſkal engenn gamall verda í þíns fødurs húſe æſennlega.

33. Þó vil eg engann uppræta af þer frá mínu alltare, ſo ad þín augu vanmegneſt, og þín ſál ſyrge, og meſtur fiolde af þínu húſe ſkal deya, nær þeir eru komner til manns.

34. Og þad ſkal vera þer eitt merke, ſem koma ſkal yfer þína tvo ſonu, Ophni og Phineas, ad á einum deige ſkulu þeir báder deya.

35. Og eg vil uppveka mer einn trúlyndann kennemann: hann ſkal gera þad ſem ad líkar mínu hiarta og minne ſálu; og eg vil bygga hønum eitt ſtadfaſt hús, ad hann gange alla daga fyrer mínum ſmurda.

36. Og hver ſem epter blífur í þínu húſe, hann ſkal koma og falla nidur fyrer hønum, fyrer einn ſilfurpening, og fyrer einn bita brauds, og ſkal ſeigia: kære! lát mig ná einum kennemanns hlut, ſo eg meige eta einn bita brauds.

## 3. Capitule.

1. Og ſem ſveinnenn Samuel þiónade Drottni under Eli, þa var Drottins ord dyrt á þeim ſama tíma, og þar urdu ſialldann vitraner.

2. Og þad ſkede ſo á þeim ſama tíma, ad Eli lá í ſínum ſtad, og hans augu tóku til ad mirkaſt, ſo hann mátte eigi ſiá.

3. Og Samuel hafde lagt ſig í muſtere Drottins, þar ſem Guds ørk var, ádur enn Guds lampar ſloknudu.

4. Og Drottinn kallade Samuel. Hann ſvarade: ſiá! her em eg.

5. Og hann rann til Eli, og ſagde: ſiá her em eg! þú kallader mig. Hann ſagde: eg kallade þig eigi;

far í burt aptur ad sofa, og hann geck í burt, og lagde sig aptur til sveins.

6. Og Drottinn kallade enn eitt sinn, Samuel! og Samuel stód upp, og geck til Eli, og sagde: siá! her em eg, þú kallader mig. Hann sagde: eigi kallade eg þig, minn sonur, far burt aptur, og legg þig ad sofa,

7. Enn Samuel þeckte þá enn eigi Drottinn, og ordDrottins hafde þá enn eigi birtst fyrer honum.

8. Og Drottinn kallade Samuel í þridiá sinn. Og hann stód upp, og geck tilEli, og sagde: siá! her em eg, þú kallader mig. Þá merkte Eli ad Drottinn kallade sveinenn,

9. Og sagde til hans: far í burt aptur, og legg þig ad sofa, og verde kallad á þig, þá svara þú: tala þú Drottinn, þvi þinn þenare heyrer þad. Samuel geck í burt, og lagde sig í sinn stad.

10. Þá kom Drottinn, og geck þangad, og kallade sem fyrr, Samuel! Samuel! og Samuel svarade: tala þú, þvi þinn þenare heyrer.

11. Og Drottinn sagde til Samuel: siá! eg gere einn hlut í Israel, so ad hver þad heyrer, þá skal klinga fyrer bádum hans eyrum.

12. A þeim deige vil eg uppvekia yfer Eli þad eg hefe talad imóte hans húse; eg vil uppbyria og fullkomna þad.

13. Þvi eg hefe undervísad honum þad, ad eg vil vera domari yfer hans húse æsinnlega, sokum þess misgernings, ad hann visse hvernenn hans syner breittu ser skammarlega, og hann let eigi eitt sinn reiduglega þar til.

14. Þvi sór eg Eli húse, ad þesse Eli húss misgerningur skyllde eigi verda forlíktur, hverke med fórnum ne matoffre, æsinnlega.

15. Og Samuel lá allt til morguns, og lauk upp dyrum á Drottins húse. Enn ei þorde Samuel ad seigia Eli þessa syn.

16. Þá kallade Eli hann, og sagde: Samuel, minn sonur! hann svarade: siá! her em eg.

17. Eli sagde: hvad er þad ord sem þer er sagt? leyn engu af fyrer mer: Gud gere þer þad og þad, ef þú leyner nockru fyrer mer, af þvi sem þer er sagt.

18. Þá sagde Samuel honum þad allt saman, og leynde engu af. Enn hann sagde: hann er Drottinn; hann gerer hvad honum er þeckt.

19. Samuel vox upp, og Drottinn var med honum, og þar fell eigi eitt af ollum hans ordum á jord.

20. Og allur Israels lydur, frá Dan til BerSaba, visse, ad Samuel var Drottins trúlyndur spámadur.

21. Og Drottinn opennberadest upp frá þvi í Silo, þvi Drottinn birtest Samuel í Silo, fyrer Drottins ord.

22. Og Samuel hóf upp ad predika fyrer ollum Israel.

## 4. Capitule.

1. Og þad skede, ad Israels lydur fór út í mót þeim Philisteis í bardaga, og sette sínar herbúder hiá Eben Ezer. Enn þeir Philistei hofdu sett herbúder í Aphek,

2. Og biuggust til bardaga í mót Israel. Og bardagenn ridladest vída um vollu, so ad Israels lydur fell fyrer Philisteis, og þeir felldu af fylkingum þeirra, í morkenne, nær fiogur þusund manns.

3. Enn sem fólked kom til herbúda, þá sogdu þeir ellstu af Israel, þvi mun Drottinn hafa láted oss falla í dag fyrer þeim Philisteis? ver vilum sækia sáttmáls ork Drott=

ins af Silo og látum hana vera millum vor, so hún frelse oß frá vorra óvina høndum.

4. Og almúgurenn sende bód til Silo, og let sækia þadann Drottins Zebaoths sáttmáls ørk, sem situr yfer Cherubim, og þeir tveir Eli syner voru þar med Guds sáttmáls-ørk, Ophni og Phineas.

5. Og þegar sáttmáls ørk Drottins kom í herbúdernar, þá æpte allur Israel eitt miked fagnadur óp, so ad jørdenn tók epter.

6. Og sem Philistei heyrdu soddann gledehróp, þá søgdu þeir: hvad mun merka soddann óp mikels fagnadar háreystes í herbúdum ebreskra manna? og sem þeir vissu, ad Drottins ørk var komenn í þeirra herbúder,

7. Þá óttudust þeir, og søgdu: Gud er komenn í herbúdernar. Og søgdu enn framar meir: vei oß, ei geck so til fyrr,

8. Vei oß, hver vill frelsa oß af þeim megtugum Guda høndum? Þetta eru þeir Guder, sem slóu Egyptaland med allra handa plágum í eydemørkunne.

9. So styrkest nú, og vered hrauster, þer Philistei, so þer þurfed eigi ad þióna Ebreskum, líka sem þeir hafa þiónad ydur; vered menn og strídet.

10. Philistei hlupu þegar á Israel med bardaga, so ad Israelis menn urdu slegner, og flúde hver og einn til síns heimelis, og þar vard miøg miked mannfall, so ad þar fellu af Israel þriátíu þusund fótgaungu lids,

11. Og Drottins ørk vard hertekenn, og þar dóu báder syner Eli, Ophni og Phineas.

12. Einn madur af Benjamin flúde úr bardaganum, og kom til Silo þann sama dag, og hann hafde rifed sín klæde, og aused molldu yfer høfud ser.

13. Og siá, þá hann kom þar inn, sat Eli á einum stóle, so hann mátte siá til vegarins, því hans hiarta var hugsiukt um Drottins ørk. Og sem madurenn kom í stadenn, þá kunngerde hann (hvad sked var) og allur stadurenn hrópade med hárre røddu.

14. Enn sem Eli heyrde háreyste og hróp, þá spurde hann: hvad veit þetta hark og háreyste? Þá kom sá same madur þegar, og sagde Eli frá.

15. Eli var átta og níutíu ára gamall, og hans augu voru ordenn óskygn, so hann sá eigi,

16. Þá sagde madurinn til hans: eg em komenn, og flyda eg í dag úr bardaga. Eli svarade: minn sonur! hvernenn gengur til,

17. Frétta-maduren svarade honum, og sagde: Israels folk flyde fyrer Philisteis, og þar var miked mannfall á medal folksins, so eru og dauder báder þiner syner, Ophni og Phineas, her med er Guds ørk hertekenn.

18 Enn þegar hann nefnde Guds ørk, þá fell Eli aptur á bak af stólnum, hiá portenu, og hálsbrotnade, og andadest, því hann var gamall, og líkamaþungur madur. Hann dæmde yfer Isr..l í fiørutíu ár.

19. Og hans sonarkona, Phineas kvinna, var med barne, og átte skamt epter ad fæda sitt fostur. Enn sem hún heyrde þesse tídende, ad Guds ørk var hertekenn, og ad hennar mágur og madur voru dauder, laut hún nidur, og vard lettare, þviad jodsótt greip hana.

20. Og í því bile sem hún andadest þá søgdu þær kvinnur sem sátu yfer henne: óttast eigi, þviad þú hefir einn ungann son. Enn hún ansade engu, og gegnde því eigi.

21. Þá kallade hún sveinenn Icabod, og sagde: dyrdenn er horfenn frá Israel, sökum þess, ad Guds ørk var hertekinn, og at hennar madur og mágur voru dauder.

22. Hún sagde og enn í annad sinn: vegsemdenn er í burt frá Israel, þvi Guds ørk er hertekinn.

## 5. Capitule.

1. Og þeir Philistei tóku nú Guds ørk, og fluttu hana frá EbenEzer til Asdod,

2. Og letu hana í hús Dagons, og settu hana hiá Dagon,

3. Enn sem þeir af Asdod stódu árla upp þess annars dags, þá fundu þeir Dagon dottenn á jørdu nidur, og liggiá þar á grufu fyrer ørk Drottins. Enn þeir tóku Dagon, og settu hann upp aptur í sinn stad.

4. Annars dags, sem þeir stódu snemma upp, þá fundu þeir Dagon enn aptur dottinn á jørd nidur, liggianda á grufu fyrer Guds ørk, enn hans høfud og bádar hans hendur voru afhøggnar um þrøskulldenn, enn bolurenn lá alleina fyrer sig þar uppá.

5. Þvi stíga eigi Dagons prestar, og aller þeir sem ganga í Dagons hus, uppá Dagons þrøskulld í Asdod, inn til þessa dags.

6. Og hønd Drottins vard þung yfer þeim í Asdod, og fordiarfade þá, og sló þá menn í þeirra leynelegum stødum í Asdod, og øllum hennar landamerkium.

7. Enn þá fólked í Asdod sá, ad þad geck so til, sagde þad: láted Israels Guds ørk eigi vera hiá oss, þvi hans hønd er oførd yfer oss, og yfer vorum Gude Dagon.

8. Og þeir sendu bód út, og søfnudu øllum Philisteis høfdingium til sín, og søgdu: hvad skulum ver gera med Israelis Guds ørk? þá svørudu þeir: láted þá af Gad bera Israels Guds ørk umkring. Og þeir báru Israels Guds ørk umkring.

9. Og þá þeir báru hana umkring, þá vard eitt miked upphlaup í stadnum fyrer Guds hønd, og hann sló fólked í stadnum bæde stóra og smá, so ad þeir feingu leynelegar plágur, á leynelegum stødum.

10. Þá sendu þeir ørk Drottins til Ekron. Enn sem Guds ørk kom til Ekron, þá æptu þeir í Ekron: þeir bera Guds ørk umkring til mín, ad slá mig í hel og mitt folk.

11. So sendu þeir bod, og samankølludu alla høfdingia Philisteanna, og søgdu: sended Israels Guds ørk í burt aptur í sinn stad, so hún drepe eigi mig, ne mitt folk. Þviad Guds hønd gerde eitt mikenn ókirrleika í allre borgenne, med manufalle.

12. Enn þeir menn sem eigi dóu, þeir voru slegner í leyndum stødum (síns líkama) so ad ylfran borgarennar geck upp í himenenn.

## 6. Capitule.

1. Og ørk Drottins var sió mánude í lande Philisteanna.

2. Þá kølludu Philistei saman presta sína og spásagnar menn, og søgdu: hvad skulum ver gera af ørk Drottins? seiged oss, hvar med ver skulum senda hana, í sinn stad? þeir svørudu:

3. Ef þer viled senda Israels Guds ørk í burt, þá sended hana eigi tóma heim, helldur skulud þer bitala henne skulldaoffur, so verded þer heiler, og munud þer fá ad vita, hvar fyrer hans hønd linner eigi af ydur.

4. Enn þeir svørudu: hvad skulldaoffur er þad, sem ver skulum gefa hønum? þeir søgdu: þad eru fimm bakhluter af gulle gerder, og fimm

mys af gulle, epter tølu fimm Phi-
listea høfdingia. Pvi þad hefir verid eins slags plága yfer ydur øllum, og so ydrum høfdingum,
5. So skulud þer þau gera eins ad mind sem ydra gumpa, og so sem ydrar mys, sem fordiarfad hafa ydart land, so þer gefed Israels Gude dyrdena; ske má, ad hans hønd lette af ydur, og ydrum Gude, og so ydaru lande.
6. Pvi forherded þer ydar hiørtu, sem þeir í Egyptalande, og Pharao, forherdtu sín hiørtu? skede þad eigi so, þá hann audsynde sig þeim, þá gáfu þeir fólkenu burtfarar leyfe? og þad fór í burt.
7. So fared nú til, og gered einn nyann vagn, og taked tvær nybærar kyr, þær sem alldrei hafa under ok komed, og beited þeim fyrer vagnenum, enn láted þeirra kálfa vera heima.
8. Taked sídann Drottins ørk, og leggid hana á vagnenn, og þau hnoss af gulle, sem þer gefed hønum til skulldaoffurs, þá legged einn kistel þar hiá hennar sídu, og sended hana af stad, og láted hana fara.
9. Og hygged ad, ef hún fer á þann veg sinna landamerkia til Beth Semes, þá hefir hann gert oss allt þetta hid mikla vonda, enn ef eigi sker so, þá skulum ver vita, ad hans hønd hefir eigi snorted oss, helldur hefir oss þvilíkt sked af tilfelle.
10. Og fólked gerde so, og þeir tóku tvær ungar nybærar kyr, og beittu þeim fyrer vagnenn, enn hélldu þeirra kálfum epter heima.
11. Og þeir settu ørk Drottins í vagnenn, og so kistelenn, í hverium ad voru gullmysnar, og so mindernar þeirra bakhluta.
12. Og kyrnar gengu rettann veg til Beth Semes rakleidis, og þær gengu baulande, og þær viku eigi af, hverke til hægre ne til vinstre sídu. Og høfdingar Philisteanna gengu epter þeim allt til Beth Semes landamerkia.
13. Peir Beth Semitar voru ad hveitekornskurde, í einum dal, á þeim tíma, og þeir upplyptu sínum augum, og sáu ørkena, og þeir glødduzt, er þeir sáu hana,
14. Og vagnenn kom ad Josua Beth Semita akre, og nam þar stadar. Og þar var einn stór steinn, og þeir klufu í sundur tren af vagnenum, og offrudu Drottni kunum til brenneoffurs.
15. Og Levitarner tóku Guds ørk af (vagnenum) og so kistelenn, sem þar var hiá, í hverum ad þau gullhnoss voru, og settu ørkena á þann stóra stein. Enn fólked af Beth Semes færde Drottne, á þeim sama deige, brennefórner, og so adrar fórner.
16. Og sem þeir fimm Philistei høfdingiar sáu þetta, sneru þeir aptur á þeim sama deige til Ekron.
17. Pesser eru þeir gullbakhluter sem Philistei gáfu Drottni til skulldoffurs, Asdod einn, Gasa einn, Askalon einn, Gath einn, og Ekron einn.
18. Og þær gullmys, epter tølu allra borganna Philistinorum, sem voru under vallde þeirra fimm høfdingia, bæde af múrudum borgum, og þorpum, og til þess stóra Abel, sem þeir settu Guds ørk uppá, allt til þessa dags, á Josua Beth Semiters akre.
19. Og þad skede, ad nockrer af þeim Beth Semitis voru flegner, sokum þess, ad þeir sáu Drottins ørk, og hann sló af fólkenu fimmtíu þusund manns og siøtíu. Pá gret fólked, ad Drottinn hafde gert so miked mannfall.

20. Og fólked af Beth Semes sagde: hver kann ad standast fyrer Drottni so heiløgum Gude? og til hvers skal hann fara frá osß?

21. Og þeir sendu bod til borgaranna í Kiriath Jearim, og letu seigia þeim: þeir Philistei hafa flutt ørk Drottins aptur: komed ofann hingad, og flyted hana upp til ydar.

## 7. Capitule.

1. So kom fólked af Kiriath Jearim, og flutte ørk Drottins upp, og færde hana inn í Abi Nadabs hus, í Gibea, og hans son Eleasar helgudu þeir, ad hann skyllde vardveita ørk Drottins.

2. Og frá þeim deige, ad ørk Drottins var í Kiriath Jearim, þá lidu langar stunder framm, þar til þad urdu tuttugu ár, og allt Israels folk gret fyrer Drottni.

3. Þá talade Samuel til alls Israels húss: ef ad þer snúed ydur til Drottins af øllu ydru hiarta, so legged frá ydur annarlega Gude, og Astharoth, og tilreided ydar hiørtu Drottni, og þióned hønum alleina, þá mun hann frelsa ydur af hende Philistinorum.

4. Þá snørudu Israels børn burt frá ser Baalim, og Astharoth, og þiónudu Drottni einum.

5. Og Samuel sagde: samansafned øllum Israel til Mizpa, so ad eg meige bidia til Drottins fyrer ydur.

6. Og þeir komu tilsamans í Mizpa, og iusu vatn, og helltu því út fyrer Drottni, og føstudu þann sama dag, og søgdu í þeim sama stad: ver høfum syndgast í móte Drottni. Og Samuel dæmde Israels børn í Mizpa.

7. Enn sem Philistei heyrdu þad, ad Israels børn voru samannkomenn í Mizpa, þá fóru høfdingiar Philistinorum upp í móte Israel. Og sem Israels børn heyrdu þad, óttudust þeir fyrer Philisteis.

8. Og søgdu til Samuels: lát þu eigi af ad hrópa fyrer oss, til Drottins vors Guds, ad hann frelse oss frá hende Philistinorum.

9. So tók Samuel eitt miolkur lamb, og færde Drottni eitt heillt brenneoffur, og hrópade til Drottins fyrer Israel, og Drottinn bænheyrde hann.

10. Og þegar Samuel offrade brenneoffrenu, þá komu Philistei ad framm, ad strída imóte Israel. Enn Drottinn let dynia miklar reidarþrumur yfer Philisteos á þeim sama deige, og hrædde þá, so ad þeir fellu fyrer Israel.

11. Epter þad fóru Israels menn út af Mizpa, og ráku flóttann þeirra Philistinorum, og slóu þá allt til BethCar.

12. Sídann tók Samuel einn stein, og sette hann á millum Mizpa og Sen, og kallade hann EbenEzer, og sagde: allt hingad ad hefir Drottinn hiálpad oss.

13. So urdu Philistei underþrickter, og komu eigi framarmeir í Israels landamerke, og Drottins hønd var mót Philisteis, so leinge sem Samuel lifde.

14. Sídann fengu Israels børn þær borger aptur, þær sem Philistei høfdu teked frá þeim, frá Ekron, og inn til Gath, med þeirra landamerkium, þær frelsade Israel aptur af hende Philistinorum, þviad Israel hafde frid vid Amorita.

15. Og Samuel dæmde Israel sína lífs tíd, og hann fór hvert ár í kring til BethEl, og Gilgal, og Mizpa.

16. Og sem hann hafde dæmt Israel í øllum þessum stødum,

17. Þá kom hann til Ramath aptur, þvi þar var hans hús, og þar dæmde hann Israel, og þar bygdi hann Drottni eitt alltare.

## 8. Capitule.

1. Sem Samuel tók ad elldast, sette hann sonu sína til domara yfer Israel.

2. Hans frumgetenn sonur het Joel, enn sá annar Abiá, og þeir voru domendur í Bersaba.

3. Enn hans syner gengu eigi epter hans vegum, helldur hneigdust þeir til ágyrndar, og medtóku gáfur, og helludu rettenum.

4. Þá samansöfnudust aller hinir elistu menn af Israel, og komu í Ramath til Samuels,

5. Og sögdu til hans: siá! þú ert nú ordenn gamall, og þíner syner ganga eigi í þín fótspór, þar fyrer set þú einn kong yfer oss, sá yfer oss kann ad dæma, so sem aller heidingiar hafa.

6. Enn þetta misliikade Samuel, ad þeir sögdu: gef oss konong, sem kann ad dæma yfer oss, og Samuel bad til Drottins.

7. Og Drottinn sagde til Samuels: hlyd þu raust folksins, í öllu þvi sem þad talar vid þig, þvi þeir hafa eigi útskúfad þer, helldur mer, ad eg skule eigi vera konongur yfer þeim.

8. Þeir gera vid þig so sem þeir hafa ætíd gert, frá þeim deige sem eg færde þá út af Egyptalande, allt til þessa dags, og hafa yfergefed mig, og þiónad ödrum Gudum.

9. Þar fyrer hlyd þú nú þeirra raustu, enn þó skalltu vitna fyrer þeim, og undervísa þeim kongsins rett, sem stiorna skal yfer þeim.

10. Og Samuel sagde fólkenu öll þesse ord Drottins, þeim sem beiddust kongsins af honum.

11. Þetta skal vera kongsins rettur, sem stiorna skal yfer ydur, hann skal taka ydra sonu til sinna vagna, og reidmanna, sem ferdast skulu fyrer hans vagne,

12. Og til höfuds-manna yfer þusund, og yfer fimmtíu, og akursmanna, sem vinna skulu hans akra, og til kornskurdar-manna í hans haustyrkiu, og ad þeir gere hans harneskiu, og þad sem heyrer til hans vagne.

13. Ydrar dætur mun hann taka til smyrslagerdar, og matgerdar, og braudbakstursf.

14. Hann skal taka ydar bestu akra og víngarda, og oleugarda, og gefa sínum þenurum.

15. Her med skal hann og taka tíund af ydrum sædum og víngerdum, og gefa sínum hirdmönnum og þenurum.

16. Hann skal og taka ydra þenara og þiónustu píkur, og ydar fegurstu ungmenne, og ydra asna, til sinnar vinnu,

17. Hann skal og taka tíunder af ydarri hiörd, og þer skulud vera hans þenarar.

18. Og þá þer kveined á þeim tíma undann ydrum konge, sem þer hafed útvaled ydur, þá skal Drottinn eigi bænheyra ydur á þeim sama tíma.

19. Og fólked villde eigi hlyda Samuelis raustu, og sagde: í enganm máta, helldur skal konongur vera yfer oss.

20. So ver meigum vera so sem allar adrar heidnar þióder, so ad vor konongur meige dæma yfer oss, og fara út fyrer oss, þá ver heyum bardaga vora.

21. Þá hlydde Samuel öllu þvi sem fólked mællte, og tiáde þetta fyrer Drottins eyrum.

22. Og Drottinn sagde til Sa-

muel, hlyd þeirra raustu, og gef þeim einn kononng. Sídann sagde Samuel til Israels manna: fared heim, hver í sinn stad.

## 9. Capitule.

1. Madur einn var þar af Benjamin, ad nafne Kis, sonur AbiEl, sonar Zeror, sonar Bechorath, sonar Apia, sonar eins manns Jemini, nafnkunnugur madur.

2. Kis átte einn son, sem het Saul; hann var ungur og ásiálegur madur, so þar var engenn dæeligre á medal Israels barna; hann var høfde hærre enn aller adrer menn.

3. Kis, fader Saul, hafde mist sínar øsnur, og hann sagde til síns sonar Sauls: tak einn af þenurunum med þer, og tak þig upp, og far ad leita ad øsnunum.

4. Og hann geck í gegnum Ephraims fiallbygder, og í gegnum Salisa land, og þeir fundu þær eigi. So gengu þeir í gegnum land Saalim, og þær voru þar eigi; þeir gengu í gegnum Jemini land, og fundu þær eigi.

5. Enn er þeir komu í landed Zuph, þá sagde Saul til þess sveins, sem med honum var: kom, og skulum vid fara heim aptur, ske má, ad minn fader hafe gleymt øsnunum, enn se hugsiúkur fyrer ockur.

6. Enn sveinnenn svarade: siá! her er einn nafnkunnugur Guds madur í þessum stad, og allt þad sem hann seiger, þad skedur. Førum nú þangad; ske má, ad hann seige ockur ockarn veg, þann vid skulum ganga.

7. Saul svarade til síns sveins: þó vid førum þangad, hvad høfum vid ad gefa þeim manne? þvi braud ed er í burt af ockar matar poka, so høfum vid og enga adra skeinking, sem vid meigum bera þeim Guds manne; hvad høfum vid?

8. Enn sveinnenn svarade Saul aptur, og sagde: siá! eg hefe einn fiorda part af einum silfur sikle, hiá mer, þann vilum ver gefa þessum Guds manne, so hann seige ockur ockarn veg.

9. Fordum tíd í Israel, þá menn fóru ad spyria Gud, þá var so mál manna: komed, og gangum til siáandans; þviad þeir sem nu kallast Prophetar, þá sømu kølludu menn í fordum tíd siáendur.

10. Saul sagde til síns sveins: þú sagder vel; kom, og gaungum.

11. Enn sem þeir gengu ad stadnum, þar sá Guds madur var, og komu upp til stadarins, þá fundu þeir meyar nockorar, sem gengu út ad sækia vatn, og þeir søgdu til þeirra: er siáandenn her?

12. Þær svørudu þeim, og søgdu: Já! siá! þar er hann, flyted ydur, þvi í dag kom hann í stadenn, søkum þess, ad í dag skal fólked offra á hædenne.

13. Nær þer komid inn í stadinn, þá finned þid hann ádur enn hann fer í hædena ad snæda. Þviad engenn madur sær ser mat fyrr enn hann kemur, þviad hann blessar offred: epter þad borda þeir sem bodner eru; þar fyrer fared upp, þviad strax nú munud þid finna hann.

14. Enn sem þeir komu upp til stadarins, og voru midt í stadnum, siá! þá geck Samuel ut í móte þeim, og villde fara upp á hædena.

15. Enn Drottinn hafde birt fyrer eyrum Samuel á deigenum fyrr, ádur enn Saul kom, og sagt:

16. Eg vil senda einn mann til þín, á morgun um þennann tíma, af lande Benjamin, hann skalltu smyria til eins høfdingia yfer mitt folk Israel, ad hann frelse mitt folk af hende þeirra Philistinorum. Þviad eg hefe sed til míns folks, og þeirra kall er komed fyrer mig.

17. Nú sem Sámuel sá Saul, svarade Drottinn hønum: siá! þad er sá madur, af hverum eg sagde þer, ad hann skyllde stiorna yfer minu folki.

18. Þá geck Saul til Samuels í portenu, og sagde: seig mer, hvar er her siáandans hús?

19. Samuel svarade Saul, og sagde: eg em siáandenn, gack upp undann mer á hædena, þvi ad þid skulud eta med mer í dag, enn á morgun vil eg láta þig fara, og eg vil seigia þer allt þad byr í þínu hiarta.

20. Og um þær øsnur, sem þú hefir misst fyrer þremur døgum, ver nú eigi hugsiukur, þvíad þær eru fundnar. Og hverum skal til heyra allt þad ed besta, sem er til í Israel? skal þad eigi vera þitt, og alls þíns fødurs húss?

21. Saul svarade: em eg eigi einn sonur af Jemini, og af þeirre minnstu ættkvísl í Israel, og mín ætt er hin sídsta á medal alls Benjamins kins og afkvæmis; hvar fyrer talar þú fyrer mer soddann?

22. So tók Samuel Saul og hans svein, og leidde þá uppá (bord) salenn, og sette þá efst á medal þeirra sem bodner voru; þad var nær þriátíu manns.

23. Og Samuel sagde til kockfins: ber hingad þad stiicke sem eg feck þer, og baud ad þú skyllder geyma þad hiá þer. Þá bar kockurenn einn bóg framm, og þad sem þar heck vid.

24 Og hann lagde þad fyrer Saul, og sagde: siá! þad hefir verid leift, legg fyrer þig og et, þvi þad hefir vered geymt handa þer allt til þessa, þá eg innbaud fólkenu. So át Saul med Samuel þann dag.

25. Nú sem þeir gengu ofann af hædinne til stadarins, talade hann vid Saul uppá þakenu.

26. Og þeir stódu tímanlega upp. Og sem ad daga tók, þá kallade Samuel Saul uppá þaked, og sagde: statt upp, ad eg láte þig fara: og Saul stód upp, og þeir gengu báder út, hver med ødrum, hann og Samuel.

27. Enn sem þeir komu ad enda stadarins, þá sagde Samuel til Sauls: seig þínum sveine, ad hann fare undann ockur. Og sveinnenn geck framm undann þeim, enn þú statt nú kirr, so ad eg meige kunngera þer hvad Gud hefir sagt.

## 10. Capitule.

1. Epter þetta tók Samuel, eitt glas med oleum, og hellte yfer hans høfud, minntest vid hann, og sagde: ser þú, ad Drottinn hefir smurt þig til eins høfdingia yfer sína erfd?

2. Og sem þú skilur nú vid mig, þá muntu finna tvo menn hiá Rachels grøf, í landamerkium Benjamin í Zelzah, þeir munu seigia þer, ad øsnurnar eru fundnar, þær þú geckst ad leita epter, og siá! þinn fader hefir aflagt áhyggiu asnanna, enn er nú hugsiukur fyrer yckur, og seiger: hvad skal eg til gera um minn son?

3. Enn sem þú snyr þer frammveigis þar frá, þá muntu koma til eikarinnar Thabor, þar munu þrír menn mæta þer, hverer upp fara til Guds í Bethel. Einn ber þriu kid, enn annar þriár braud-køkur, enn þridi fløsku med vín.

4. Og þeir munu heilsa þer vinsamlega, og gefa þer tvø braud; þau skallt þú medtaka af þeirra høndum.

5. Þessu næst muntu koma uppá Guds hæd, þar sem eru herbúder þeirra Philistinorum; enn þá þú kemur þar í stadinn, þá mun flockur spámanna mæta þer, þeir sem koma

ofann af hædinne, og þar mun gan=
ga fyrer þeim psalterium, bumbur,
pípur, og hørpur, og þeir munu ve=
ra ad spá.

6. Og Guds ande mun koma yfer
þig, og þú skallt spá med þeim, og
so skalltu verda ad ødrum manne.

7. Og sem þesse teikn eru nú
frammkomenn, þá ger hvad þer ad
høndum kemur, þviad Gud er med
þer.

8. Og þú skallt fara ofann und=
ann mer til Gilgal, siá! þangad vil
eg koma ofann til þín, til ad offra
þar brennefórnum og þackaroffre.
Enn þú skallt bída í siø daga, þar
til eg kem til þín, og kunngere þer
hvad þú skallt gera.

9. Og sem Saul snere sínum
herdum ad hann genge frá Samu=
el, þá gaf Gud hønum annad hiar=
ta, og øll þesse teikn komu framm,
á þeim sama deige.

10. Og sem þeir komu ad hæd=
inne, siá! þá kom einn spámanna
flockur í móte hønum, og Guds an=
de kom yfer hann, so ad hann spáde
med þeim.

11. Enn sem þeir aller sáu hann,
sem hann ádur þecktu, ad hann spá=
de med spámønnum, þá sagde hver
til annars, hvad kemur ad syne Kis?
hvert er Saul í tølu spámannanna.

12. Og einn af þeim svarade og
sagde: hver er þeirra fader? þadann
er komed þad máltæke: er Saul og
so á medal spámanna?

13. Enn sem hann hafdi útspád,
þá kom hann upp á hædina.

14. Fødurbroder Sauls sagde til
hans, og hans sveins: hvert fórud
þid? þeir svørudu: ad leita ad øsn=
um, enn sem vid sáum, þær voru
þar eigi, komum vid til Samuels?

15. Þá svarade fødurbroder
Sauls: seig mer? hvad sagde Sa=
muel til ydar.

16. Saul svarade sínum fødur=
brodur: hann sagde ockur ad øsn=
urnar voru fundnar, enn eige sag=
de hann hønum hvad Samuel haf=
de mællt um kongs ríked.

17. Epter þetta let Samuel kalla
fólked samann fyrer Drottni í Miz=
pa,

18. Og sagde til Israels barna:
þetta seiger Drottinn Israels Gud:
eg færdi Israel af Egyptalande,
og frelsade ydur af høndum þeirra
Egyptsku, og af høndum allra þeir=
ra kongaríkia, sem ydur þvingudu.

19. Og þer hafed í dag útskufad
ydrum Gude, sem ydur frelsad hef=
ir af allre ydari ólucku, og hørm=
ungum, og þer seiged til hans: set
einn konong yfer oss. Nú vel, gang=
ed þá framm fyrer Drottinn, epter
ydrum kinkvíslum og ættum.

20. Enn sem Samuel hafde sam=
ankallad allar Israels ættkvísler,
þá fell hlutur yfer Benjamins ætt.

21. Og sem hann leidde ætt Ben=
jamins framm, med sínum ætt=
mønnum, þá fell hlutur yfer Matri
ætt, og yfer Saul, son Kis. Og
þeir leitudu epter hønum, og fundu
hann eigi.

22. Þá spurdu þeir Drottinn ad
framar meir, mun hann enn nú ko=
ma hingad? Drottinn svarade: siá!
hann hefir faled sig under kerenu.

23. So fóru þeir þangad, og sók=
tu hann þadann. Og sem hann geck
á mille folksins, þá var hann høfdi
hærre enn allt folk.

24. Og Samuel sagde til alls
folksins: þar siáed þer hann sem
Drottinn útvalde, þviad engenn er
hønum líkur á medal alls folksins.
Þá þaut upp allt fólked, og sagde:
lucku fáe konongurenn!

25. Samuel sagde fólkenu all=
ann kongsríkesins rett, og skrifade
hann í eina bók, og lagde hana

fyrer Drottinn. Sídann let Samuel allt fólked fara í burt, hvern í sitt hús.

26. Saul geck og heim til Gibea, og einn hlutur hersins geck med hønum, hverra hiørtu ad Gud hrærde.

27. Enn nockorer lausingiar søgdu: hvad skal þesse hiálpa oss? og þeir forøktudu hann, og færdu hønum enga gáfu: enn hann let sem hann heyrde þad eigi.

## 11. Capitule.

1. Enn Nahas, sá Ammonite, ferdadest upp, og settest um Jabes í Gilead, og aller menn í Jabes søgdu til Nahas. Ger sáttmála vid oss, so vilium vèr þióna þer.

2. Enn Nahas Ammonite svarade þeim: med þessu móte vil eg sáttmál gera vid ydur, ad eg vil stínga hid hægra auga út, á øllum ydur, og gera ydur til hádungar á medal alls Israels.

3. Þá søgdu ølldungarner af Jabes til hans: gef oss sió daga frest, so ad ver meigum senda bod til allra landamerkia í Israel, og ef þar finnst engenn sá sem oss frelsar, þá vilium ver koma út til þín.

4. So komu þesser sendemenn fyrer Saul í Gibea, og þeir kunngerdu soddann fyrer folksins eyrum. Þá upphóf allt folk sína raust, og gret.

5. Og siá, í þessu bile kom Saul af akre, og geck epter (ardar) uxum, og sagde: hvad er fólkenu ad þad grætur? og þeir kunngerdu hønum erende þeirra manna, sem komner voru af Jabes.

6. Þá styrktest Guds ande yfer Saul, þá hann heyrde þesse ord, og hann vard miøg reidur.

7. Og hann tók eitt par uxa, og hió þad í sundur í stycke, og sende þau til allra Israels landamerkia, med þessum sendemønnum, og let seigia: hver sem eigi út fer og fylger Saul, og Samuel, þá skal so gera hans uxum. Þá fell Drottins ótte yfer fólked, og þad fór út so sem einn madur være.

8. Og hann skickade þeim nidur í ordu, í Basek, og Israels børn voru ad tolu þríu hundrud sinnum þusund manns, enn Juda børn þriátíu þusund.

9. Og þeir søgdu til sendebódanna sem komner voru: seiged þeim mønnum í Jabes í Gilead so: þer skulud fá hiálp á morgun, þegar sem sólenn tekur ad skína heitt. Enn sem sendebódarner komu, og kunngerdu þetta borgarmønnum í Jabes, úrdu þeir glader.

10. Og mennerner í Jabes søgdu (til sinna óvina) á morgun skulum ver koma út til ydar, gered þá vid oss allt hvad þer viled.

11. Og ad ødrum morgne skipte Saul fólkenu í þriár fylkingar, og þeir komu um morgunvøkuna í herbúdernar, og slóu þá Ammonita, allt til dagurenn vard heitur. Enn þeir sem epter urdu dreifdust so vída vegar í sundur, ad af þeim voru eigi tveir og tveir tilsamans.

12. Þá sagde fólked til Samuel: hverer eru þeir menn sem þad søgdu: skal Saul ríkia yfer oss? láted þá koma hingad, so ad ver drepum þá.

13. Saul sagde: þar skal engenn deya á þessum deige, þvi Drottinn hefir gefed hiálpræde Israel.

14. Samuel sagde til folksins: komed, og skulum ver fara í Gilgal, og endurnya þar konongs ríked.

15. Sídann ferdadest allur almúgurenn til Gilgal, og settu þar Saul til konongs fyrer Drottni í Gilgal, og offrudu þackaroffre fyrer

Drottni. Og Saul og aller Israels menn urdu þar miøg glader.

## 12. Capitule.

1. Þá sagde Samuel til alls Israels: siá! eg var hlydenn ydarri rødðu, um allt þad sem þer søgdud mer, og eg hefe nú sett einn konong yser ydur.

2. Og siáed nú, ad ydar konongur gengur þar framme fyrer ydur. Enn eg em nú ordenn gamall og gráhærdur, og míner syner eru hiá ydur. Og eg hefe nú genged fyrer ydur frá mínum ungdome, allt til þessa dags.

3. Siáed! eg em nú her, svared nú á móte mer fyrer Drottne, og hans smurda; ef eg hefe teked frá nockorum manne hans uxa edur asna? eda hafe eg synt nockorum manne ofríke eda órett? eda hafe eg þeggid giafer af nockurs manns hende, og láted blinda mín augu? þá vil eg giallda ydur þad aptur.

4. Þeir svørudu: hverke hefir þú synt oss ofríke, ne órett, og ecke úr nockurs manns hende teked.

5. Hann sagde til þeirra: Drottinn se vitne í gegn ydur, og hans smurdi, á þessum deige, ad þer hafed eigi neitt funded í minne hende. Þeir søgdu: já! seu þeir þess vitne.

6. Og Samuel sagde til folksins: já! sá Gud sem skickade Mosen og Aaron, og færde ydra forsedur af Egyptalande,

7 So ganged nú framm, ad eg meige ganga í rett vid ydur fyrer Drottne, um alla Drottins velgerninga, sem hann hefir veitt ydur og ydrum forfedrum.

8. Þá Jacob var komenn í Egyptaland, kølludu ydrer forfedur til Drottins, og hann sende Mosen og Aaron, ad leida ydra forfedur af Egyptalande, og let þá búa í þessum stad.

9. Enn þá þeir gleymdu Drottni sínum Gude, sellde hann þá under valld Sissera, hver ed var høfudsmadur í Hazor, og under valld þeirra Philistinorum, og under valld kongsins Moabitarum, hverer ad heriudu á þá.

10. Enn þeir kølludu aptur til Drottins, og søgdu. Ver høfum syndgast í þvi, ad ver yfergáfum Drottinn, enn þiónudum Baal og Astharoth. Enn frelsa oss nú af høndum vorra óvina, þá vilium ver þióna þer.

11. Þá sende Drottinn Jerub Baal, Bedan, Jephthah, og Samue, lad frelsa ydur af øllum ydara óvina høndum allt umkring, og let ydur búa óhrædda.

12 Enn þá þer sáud, ad Nahas, Ammons barna kongungur, kom imóte ydur, søgdud þer til mín: eigi þú, helldur skal einn kongur ríkia yser oss, þar þó ad Drottinn ydar Gud var ydar kongur.

13 Þar hafed þer nú ydarn konong, hvern þer hafed útvaled og beded um, þvi siá! Drottinn hefir sett einn konong yfer ydur.

14. Ef þad so, ad þer óttest Drottinn og þióned hønum, og hlyded hans raustu, og erud eigi munne Drottins óhlyduger, þá skulud bæde þer, og ydar kononngur, sem stiornar yfer ydur, fylgia Drottni ydrum Gude,

15. Enn ef þer hlyded eigi raustu Drottins, helldur erud hans munne óhlyduger, þá mun hønd Drottins vera á móte ydur, og á móte ydrum fedrum.

16. Ganged her nú framm, og siáed þann mikla hlut sem ad Drottinn mun gera fyrer ydrum augum.

17. Er nú eigi hveitekornskurdar

tíme? enn eg vil ákalla Drottinn, ad hann skal láta koma regn og reidarþrumur, so ad þer skulud formerkia og siá þá miklu vondsku, sem þer hafed gert í auglite Drottins, ad þer hafed bedest konongs.

18. Og sem Saul kallade til Drottins, þá let Drottinn koma regn og reidarþrumur á þeim sama deige. Þá óttadest allt fólked miøg Drottinn og Samuel.

19. Og søgdu aller til Samuels: bid Drottinn Gud þinn fyrer þínum þenørum, so ver deyum eigi, þviad þá vondsku løgdum ver ofann á allar vorar synder, ad ver bádunst konongs yfer oss.

20. Þá sagde Samuel til folksins: óttest þer eigi, þer hafed sannarlega gert allt þad vonda, enn víked þó ei tilbaka frá Drottni, helldur þióned Drottni af øllu ydru hiarta,

21. Og snúed ydur eigi til þess fányta, þviad þad stodar eigi par, og kann eigi ad hiálpa, þviad þad er til einskis,

22. Enn Drottinn yfergefur eigi sitt folk, fyrer søkum síns stóra nafns, þviad Drottinn hefir uppbyriad ad gera ydur ser siálfum til eigenn folks.

23. Enn þad skal vera langt frá mer, ad eg syndgest so imóte Drottni, ad eg láte af ad bidia fyrer ydur, og ad læra ydur þann retta og góda veg.

24. Óttest þar fyrer ad eins Drottinn, og þióned hønum trúlega af øllu hiarta, þviad þer hafed sed þá stóru hlute sem hann hefir gert vid ydur.

25. Enn ef þer gered þad hid illa, þá skulud bæde þer, og ydar kongungur, fyrerfarast.

## 13. Capitule.

1. Saul hafde nú vered kongungur eitt ár. Sem hann hafde rikt tvø ár yfer Israel,

2. Þá útvalde hann ser þriár þusunder manna af Israel; tvær þusunder voru med Saul í Michmas, og uppá fiallenu BethEl, og eitt þusund let hann vera med Jonathan í GibeaBenjamin, enn annad fólked let hann frá ser fara, hvern til sinna heimkynna.

3. Og Jonathan sló þá Philisteos í þeirra herbúdum, sem voru í Gibea, og þeir Philistei frettu þad. Og Saul let blása í basúnur um allt landed, og let seigia: láted þá Ebreska þad heyra.

4. Og allur Israel heyrde sagt: Saul hefir sleiged herbúder Philistinorum, þviad Israel lycktade illa fyrer þeim Philisteis. Og allt fólked var kallad til Sauls í Gilgal.

5. Þá søfnudust Philistei saman, ad heria á Israel, med þriátíu þusund vagna, sex þusund riddara, og ad auk annad folk, so margt sem siáfar sandur, og ferdudust upp, og settu herbúder fyrer austann Beth Aven, í Michmas.

6. Enn sem Israels menn sáu, ad þeir voru naudstadder (þviad fólked var hrædt) fálu þeir sig í hellerum, giám, biørgum, holum og grysium.

7. Enn þeir Ebrei gengu yfer Jordan í land Gad, og í Gilead. Enn Saul var enn nú í Gilgal, og allt folk var skelft orded, sem hønum epterfylgde.

8. Þá beid hann siø daga, allt til þeirrar tídar sem til sett var af Samuel. Enn sem Samuel kom eigi til Gilgal, þá dreifdest fólked frá hønum.

9. Þá sagde Saul: færed mer hingad brennefórner og þackløtis-

förner. Og hann offrade brenneförnum.

10. Enn sem hann hafde fullkomnad brenneoffred: siá! þá kom Samuel; þá geck Saul út á móte hønum, til ad blessa hønum.

11. Þá sagde Samuel: hvad hefir þú gert? Saul svarade: eg sá ad fólked tvístradest frá mer, enn þú komst eigi í ákvedenn tíma, enn Philistei voru komner samann í Michmas.

12. Þá sagde eg: nú koma Philistei hingad ofann til mín í Gilgal, enn eg hefe eigi tilbeded fyrer auglite Drottins, þá dirfdest eg til ad færa brenneförner.

13. Samuel svarade Saul: þú gerder fávíslega, og hefir ei hallded Drottins Guds þíns bod, sem hann baud þer. Þvi hann hafde stadfest þitt rike yfer Israel æfinlega,

14. Enn nu skal þitt ríke eigi vera stødugt. Drottenn hefir funded ser einn mann epter sínu hiarta, hønum hefir Drottinn boded ad vera høfdinge yfer hans folki, þviad þú hefir eigi hallded Drottinns bodord.

15. Og Samuel reis upp, og geck frá Gilgal, til Gibea Benjamin. Enn Saul talde þad folk sem hiá hønum var, nær sex hundrud manns.

16. Saul og hans sonur Jonathan, og þad folk sem var hiá hønum, voru á Benjamins hædum. Enn Philistei høfdu sínar herbúder í Michmas.

17. Og þar fóru út þrenner flockar, frá herbúdum Philisteanna, ad foreyda landed. Einn flockurenn snere ser á þann veg sem liggur til Ophra, í lande Sual,

18. Sá annar flockur sneri á þann veg sem liggur til BethHoron; enn sá þridi flockur snere ser á þann veg sem liggur til Zeboims dals í eydemørku.

19. Á þessum tíma fannst engenn smidur í øllu Israels lande, þvi Philistei hugsudu: þeir Ebrei gera sverd og spiot.

20. Og allur Israel neyddest ad fara ofann til Philisteanna, þá nockur hafde eitt plogjárn, graftól, øxar, edur liáe ad hvessa,

21. Og þá eggenn á liáunum, graftólunum, og forkunum, og øxunum, var sliof ordenn, og oddarner óhvasser.

22. Nú sem sá dagur kom, ad þeir skylldu beriast, þá faunst hverke sverd ne spiot í hende alls þess folks sem var med Saul og Jonathan, utann Saul og hans sonur høfdu vopn.

23. Og herbúder Philisteanna fóru út framm yfer Michmas.

## 14. Capitule.

1. Þad bar til einn dag, ad Jonathan, sonur Saul, sagde til skialldsveins síns: kom, førum her yferum, til herbúda Philisteanna, sem eru þar hinumeiginn, enn þetta sagde hann eigi sínum fødur.

2. Enn Saul var staddur vid endann á Gibea, under einu granatatre, hvert ed stód í forstadnum, og þad folk sem var hiá hønum var nær sex hundrud manns.

3. Enn á þeim tíma var Abia, sonur Ahitob, broder Icabods, sonar Phineas, sonar Eli, Drottins kennemadur í Silo, og klæddest lífkyrtlenum. Fólked visse og eigi helldur, ad Jonathan var gengenn í burtu.

4. Enn í þeim stad sem ad vegurenn lá, þar Jonathan geck yfer um til herbúda Philisteanna, var einstige upp ad ganga, millum tveggia hamra, einn var þessumeigenn,

annar hinumeigenn, annar het Boʒez, annar het Senne,

5. Annar lá ad nordann, á móts vid Michmas, enn annar ſudur í móte Gaba.

6. Þá ſagde Jonathan til ſíns ſkialldſveins: kom, látum ockur fara yfer um til herbúda þeirra óumſkornu, má vel ſke, ad Drottinn útrette nockud fyrer ockur. Þviad þad er Gude eigi um megn, ad hiálpa ſo fyrer fáa ſem marga.

7. Hans ſkialldſveinn ſvarade hønum: ger hvad þer byr í hiarta, far, ſiá! eg em med þer, ſo ſem þitt hiarta vill.

8. Jonathan ſvarade: nú vel, þá vid komum yfer um til folkſins, og þeir ſiá ockur,

9. Ef þeir þá ſeigia ſo: vered kirrer, þar til ver komum til ydar, þá ſkulum vid vera kirrer, og fara eigi upp til þeirra.

10. Enn ef þeir ſeigia ſo: komed hingad upp til vor, þá ſkulum vid fara upp til þeirra, þá hefir Drottinn gefed þá í ockar hendur, og þad ſkulum vid hafa ad marke.

11. Nú ſem þeir komu í augſyn beggia Philiſteanna herbúda, þá ſøgdu Philiſtei, ſiá! þar eru Ebrei nú út komner af ſínum holum, þar þeir hafa faleſt.

12. Og þeir úr herbúdunum tøludu til Jonathan, og hans ſkialldſveins, og ſøgdu: komed upp hingad til vor, ſo vilum ver læra ydur þad. Þá ſagde Jonathan til ſíns ſkialldſveins: far epter mer; Drottinn hefir gefed þá í Iſraels hendur.

13. Og Jonathan klifrade uppepter á høndum og fótum, og hans ſkialldſveinn epter hønum. Þá fellu þeir fyrer Jonathan, og hans ſkialldſveinn vo jafnann epter hønum,

14. So ad í þvi fyrſta ſlage, ſem Jonathan og hans ſkialldſveinn veittu, voru nær tuttugu menn, ſo ſem á hálfu akurs rúme, ſem tveir uxar kunnu ad eria.

15. Og ſkelkur kom yfer herbúdernar um morkena, og yfer allt fólked í herbúdunum, og yfer ránsflockenn, ſo ad landed ſkalf, þviad ſá ſkelkur var af Gude.

16. Vardhallds menn Saul, í GibeaBenjamin, ſáu þetta, ad hópyrenn rann undann, og hver hratt ødrum til ſkada.

17. Þá ſagde Saul til folkſins: ſem voru hiá hønum: teled og hygged ad, hver þar er í burt gengenn frá oſs. Og ſem þeir tøldu, ſiá! þá var Jonathan og hans ſkalldſveinn eigi þar.

18. Þá ſagde Saul til Ahia: lát þu hingad Guds ørk (þviad Guds ørk var þann tíma hiá Iſraels børnum.)

19. Enn þá ad Saul var ad tala þetta vid preſtinn, þá vard gnyr og upphlaup í herbúdum þeirra Philiſtinorum enn ſtærra. Enn Saul ſagde til kennemannſins: lát þína hond af.

20. Og Saul kallade, og allt þad folk ſem med hønum var, og þeir komu til bardagans, og ſiá þú! ad þá var hvers eins ſverd í mót ødrum, og þar vard eitt miked hark.

21. Enn þeir Ebrei, ſem fyrr voru hiá Philiſteis, og upp høfdu fared med þeim í herbúdernar umkring, þeir gáfu ſig til Iſrael, ſem ad voru med Saul og Jonathan.

22. Og aller Iſraels menn, ſem ſig høfdu huled á fiallenu Ephraim, þa þeir heyrdu ad Philiſtei flydu, gáfu þeir ſig á bak epter þeim í ſtríded.

23. Og ſo hiálpade Drottinn Iſrael á þeſſum tíma, og bardagenn hellſt allt til BethAven.

24. Enn sem Israels menn voru mædder ordner á þessum deige, þá særde Saul fólked, og sagde: bølvadur se sá madur sem nockud etur til kvøllds, so ad eg fáe hefnt mín á mínum óvinum. Og engenn at þar nockud, af øllu fólkenu.

25. Og sem allt lands fólked kom í nockurn skóg, þá var þar hunáng á mørkenne.

26. Og sem fólked geck í skógenn, siá! þá rann hunánged, enn engenn madur drap sinne hende á þad, ad bera ad sínum munne, þviad fólked óttadest eidenn.

27. Enn Jonathan hafde eigi heyrt, ad hans fader hafde sært fólked, og hann rette út sinn staf, sem hann hafde í sinne hende, og drap endanum í hunánged, og bar høndena ad munne ser, þá upplukust hans augu.

28. Þá svarade einn af fólkenu og sagde: þinn fader hefir sært fólked, og sagde: bølvadur verde hver sá madur sem etur nockud á þessum deige, og fólked vard vanmegna.

29. Þá sagde Jonathan: minn fader hefir sturlad landed, siáed hversu mín augu upplukust, søkum þess, ad eg smackade líted af þessu hunánge.

30. Med þvi ad fólked mátte eigi eta í dag af herfánge sinna óvina, sem þad fann, þvi hefir eigi þetta slag stærra kunnad ad verda móte þeim Philisteis.

31. Og þeir slóu þá Philisteos á þeim sama deige, frá Michmas, og allt til Ajalon. Og allt fólked var miøg mædt.

32. Og fólked bió til herfánged, og tóku uxa, og saude, og kálfa, og slátrudu á jørdu, og átu so blódugt.

33. Saul var þad kunngert, siá! fólked syndgast fyrer Drottni, ad þad etur blód. Þá sagde Saul, þer hafed ílla gert, vellted nú einum storum steine hingad til mín.

34. Og Saul sagde framar meir: skiped ydur á mille folksins, og seiged þvi, ad hver um sig fære sinn naut og saude hingad til mín, og sæfe þad her, svo þer meiged eta þad, og syndgast eigi í móte Drottne ad eta med blóde. Og allt fólked færde hver um sig sinn uxa, med sinne eigenn hende, til hans, um nottena, og slátrudu þvi þar.

35. Og Saul bygde Drottne eitt alltare, þad er þad fyrsta alltare sem hann uppbygde Drottne.

36. Og Saul sagde: látum oss fara ofann epter þeim Philisteis í nótt, og rænum þá, þar til ad lios dagur er, so ver látum engann af þeim komast undann. Þeir svørudu: ger allt hvad þig lyster. Enn presturenn sagde: førum hingad til Guds.

37. Og Saul spurde Gud: skal eg fara ofann epter þeim Philisteis, og villt þú gefa þá í Israels hendur? enn Saul feck ecke andsvar á þeim tíma.

38. Þá sagde Saul: láted hingad ganga allann hóp folksins, rannsaked og siáed med hverum sú synd er á þessum tíma.

39. Þvi so sannarlega sem Drottinn Israels frelsare lifer, þó hún se á mínum syne Jonathan, þá skal hann deya, og engenn gaf hønum andsvar af øllu fólkenu.

40. Og hann sagde til alls Israels: skiptest þer í einn stad, enn eg, og minn sonur Jonathan, vilum vera ødrumeigenn. Fólked svarade Saul: ger hvad þer líkar.

41. Sídann sagde Saul til Drottins Israels Guds: lát koma upp hid retta. Þá fell hlutur yfer Saul og Jonathan, enn fólked geck frí undann.

42. Þá sagde Saul: hluted nú mille mín og míns sonar Jonathan. Þá fell hluturenn yfer Jonathan.

43. Og Saul sagde til Jonathan: seig mer hvad þú hefir gert? Jonathan kunngerde hønum þad, og sagde: eg bergde á litlu hunánge, med þvi kefle sem eg hefe í minne hende, og siá! þar fyrer má eg deya.

44. Þá sagde Saul: Gud gere mer þad og þad, Jonathan! þú hlytur vissulega ad deya,

45. Enn fólked sagde til Saul: skal Jonathan deya, sem ad gert hefir so stóra hiálp í Jsrael? langt se siærre þvi, so sannarlega sem Drottinn lifer, skal eigi eitt hár falla af hans høfde á jørd, þviad Gud hefir verkad fyrer hann í dag. So frelsade fólked Jonathan, ad hann hellt sínu life.

46. Epter þad fór Saul upp frá þeim Philisteis; enn þeir Philistei fóru til síns stadar.

47. Enn sem Saul hafde innteked ríke yfer Jsrael, heriade hann ímót øllum sínum óvinum, allt umkring, ímóte Moabitum, ímóte Ammonita børnum, ímót Edomitum, ímót kongunum af Zoba, ímót þeim Philisteis, og hvert hann snere ser, þá refsade hann,

48. Og hann safnade her ad ser, og sló Amalechita, og frelsade Jsrael af allra þeirra hende sem þeim þreyngdu.

49. Enn Saul átte fyrer syne, Jonathan, Jsui, og Malchisua; hans tvær dætur hetu so, sú hin frumgetna Merob, sú yngsta Michol.

50. Og kvinna Saul het Ahinoam, dotter Ahimaas. Enn hans herhøfdinge het Abner, sonur Ner, hver ed var fødurbroder Sauls.

51. Kis var fader Sauls, og Ner, fader Abners, var Abiels sonur.

52. Þar var eitt hardt stríd ímóte Philisteum, so leinge sem Saul lifde. Og hvar Saul sá einn sterkann og gódann strídsmann, þann tók hann til sín.

## 15. Capitule.

1. Og Samuel sagde til Sauls: Drottinn sende mig, ad eg skyllde smyria þig til kongs yfer hans folk Jsrael. Þar fyrer heyr nú rødd orda Drottins.

2. So seiger Drottinn Zebaoth: eg hefe minnst á þad sem Amalech gerde Jsrael, og hversu hann stód í veige fyrer Jsrael, þá hann fór af Egyptalande.

3. So far þú þangad, og slá íhel þá Amalechita, og foreyd þeim med øllu þvi sem þeim tilheyrer. Þirm þeim eigi, helldur slá þú íhel bæde menn og kvinnur, børn og brióstmylkinga, naut og saude, ulfallda og asna.

4. Þetta kunngerde Saul fólkenu, og hann talde þá í Telaim, tvø hundrud þusund fótgøngu lids, og tíu þusund manns af Juda.

5. Og þegar sem Saul kom til borgar Amalechitarum, þá sette hann launsátur hiá einum læk,

6. Og lét seigia Kenitum: fared burt hedann, víked, og fared nidur frá Amalechitum, so eg fordiarfe ydur eigi med þeim, þvi þer gerdud miskunarverk móte øllum Jsraels børnum, þá þau ferdudust af Egyptalande. So fluttust Kenitar burt frá Amalechitum.

7. Þá sló Saul Amalechita, frá Hevila, og allt til Sur, sem liggur yfer frá Egyptalande.

8. Og tók høndum Agag, kong Amalechita, lifanda, enn foreydde øllu fólke med sverds eggium.

9. Enn Saul og fólked þirmde Agag, og þvi sem godt var, saudum, nautum og lombum, sem aled

var, og øllu þvi sem godt var, eg villdu eigi foreyda þvi, enn hvad slæmt var og afleitt, þad drápu þeir gervallt.

10. Þá skede ord Drottins til Samuels, og sagde:

11. Mig idrar þess, ad eg setta Saul til kongs, þvi hann hefir snued ser til baka aptur frá mer, og eige gert epter mínum ordum. Vid þetta vard Samuel reidur, og kallade til Drottins alla þá nótt.

12. Og Samuel tók sig upp ad mæta Saul á þeim morgne. Honum vard þad undervísad, ad Saul være komenn til Carmel, og hefde uppsett þar eitt sigurmerke, og være farenn umkring, og komenn ofann til Gilgal.

13 Enn sem Samuel kom til Saul, sagde Saul til hans: blessadur sert þú Drottni, eg hefe fullkomnad ord Drottins.

14. Samuel svarade: hvad mun þá þyda sá Jarmur sauda sem eg heyre fyrer mínum eyrum, og so baul þeirra nauta sem eg heyre?

15. Saul svarade: þeir hafa fært þad frá Amalechitum, þvi fólked þirmde þvi enn besta af nautum og saudum, ad fórnfæra þad Drottni Gude þínum, enn ødru høfum ver foreydt.

16. Samuel svarade Saul: lát þer seigiast hvad Drottinn hefir talad vid mig á þessare nóttu. Hann sagde: seig framm.

17. Samuel svarade: er eigi so, þá þu varst lítill fyrer þínum augum, þá vardst þú ad hofde á medal Israelis kinkvísla, og Drottinn smurde þig til kongs yfer Israel?

18. Og Drottinn sende þig þann veg og sagde: far þú, og drep glæpafullt folk Amalech, og heria þú á þá, þar til þú hefir afmád þá.

19. Þvi hlydder þú eigi raustu Drottins? helldur snerer þú þer til herfángsins, og gerder illa í auglite Drottins.

20. Saul svarade Samuel: eg hlydda raustu Drottins, og eg fór þangad sem Drottinn sende mig, og eg færda hingad Agag, Amalechita kong, og eg foreydde Amalech.

21. Enn fólked tók herfánged, saude og naut, þad sem best var medal þess bannfærda, til ad offra Drottni þínum Gude í Gilgal.

22. Samuel sagde: ætlar þú ad Drottinn hafe lyst á offre og brennefórnum, so sem ad hlyda raustu Drottins? siá! hlydne er betre enn offur, og gaumgiæfne betre enn feitleyke hrútanna.

23. Þvi óhlydne er galldra glæpur, og ad vera þverbrotenn er skúrgoda blót, og afguda dírdkan. Og sokum þess, ad þu hefir í burt kastad orde Drottins, þá hefir hann og so burtkastad þer, so þú skallt eigi kongur vera.

24. Þá sagde Saul til Samuels: misgert hefe eg, ad eg hefe afrækt Drottins bod og þín ord, þvi eg óttadest fólked, og hlydde þess raustu.

25. Fyrergef mer nú þessa synd, og snú aptur med mer, ad eg tilbide Drottinn.

26. Samuel sagde til Saul: eigi sny eg aptur med þer, þviad þú hefir kastad frá þer Guds orde; so hefir og Drottinn burtkastad þer, ad þú skallt eigi vera kongur yfer Israel.

27. Enn sem Samuel snere ser, og villde ganga í burt, þá greip Saul í skickiulaf hans, so hann afreif þad,

28. Þá sagde Samuel til hans: Drottinn hefir rifed í dag Israels kongsríke frá þer, og gefed þínum náunga þad, sá sem betre er enn þú,

29. Enn Israels kappe lígur eigi, og þad angrar hann eigi, þvi hann

er eigi einn madur, so hann kunne nockurs ad idra.

30. Saul sagde: eg hefe syndgast, enn veit mer nú þó vegsemd fyrer ølldungum míns folks, og fyrer Israel, og snú um med mer, ad eg tilbide Drottinn þinn Gud.

31. Þá snere Samuel aptur, og fór epter Saul, so ad Saul tilbæde Drottinn.

32. Þá sagde Samuel: leid Agag, Amalechs kong hingad til mín. Og Agag geck diarflega fyrer hann, og sagde: so skal útdrífa daudans beiskleika.

33. Samuel sagde: so sem þitt sverd hefir rænt kvinnurnar sínum børnum, so skal þín moder rænast sínum børnum á medal kvenna. So hió Samuel Agag sundur í sticke, fyrer Drottne, í Gilgal.

34. Og epter þetta ferdadest Samuel í burt til Ramath. Enn Saul fór upp til síns húss í Gibea Saul.

35. Og epter þetta sá eigi Samuel Saul, allt til síns daudadags. Enn þó syrgde Samuel Saul, af því ad þad angrade Drottinn, ad hann hafde sett Saul til kongs yfer Israel.

## 16. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til Samuel: hversu leinge villt þú syta Saul, hverum eg hefe í burt kastad, ad hann se eigi kongur yfer Israel? fyll þitt horn med vidsmiøri, og far af stad; eg vil senda þig til Isai Bethlehemita, því eg hefe sed mer fyrer einn kong, á medal hans sona.

2. Samuel svarade: hvernenn skal eg fara þangad? Saul spyr þad og slær mig íhel. Drottinn sagde: tak þer einn kálf af nautunum, og seig so: eg em komenn ad fórnfæra Drottni.

3. Og þú skallt bioda Isai til offurs; sídann vil eg vísa þer, hvad þu skallt gera, ad þú skallt smyria mer þann, sem eg seige þer.

4. Samuel gerde sem Drottinn baud hønum, og kom til Bethlehem. Og ølldungum stadarins hnickte vid, og þeir gengu út ímóte hønum, og søgdu: er fridur þar þú kemur?

5. Hann sagde: já! eg em komenn ad færa fórner Drottne, helged ydur, og komed med mer til offurs. Og hann helgade Isai og hans syne, og baud þeim til offursins.

6. Þá þeir komu nu inn, þá horfde hann á Eliab, og huxsade med ser, mun þesse vera sá hinn smurde fyrer Drottne.

7. Enn Drottinn sagde til Samuel: vird þú eigi álit hans, ne líkamans vøxt, eg hefe burt kastad hønum, því þad gengur eigi til so sem madurenn ser; madurenn ser þad sem fyrer augunum er, enn Drottinn álítur hiartad.

8. Þá kallade Isai Abinadab, og let hann koma framm fyrer Samuel. Og hann sagde: eigi hefir Drottinn helldur þennann útvaled.

9. Þá let Isai Samma ganga framm. Enn Samuel sagde: eigi hefir Drottinn helldur útvaled þennann.

10. Epter þad let Isai sína siø sonu ganga framm fyrer Samuel. Enn Samuel sagde til Isai: enganu þessara hefir Drottinn útvaled.

11. Þá sagde Samuel til Isai: eru þetta sveinarner aller? hann svarade: er enn epter sá minnste, og siá! hann gæter sauda. Þá sagde Samuel til Isai: send þú af stad og láttu sækia hann: því ad ver setiunst eigi fyrr nidur, enn hann kemur hingad.

12. Þá sende hann af stad, og let sækia hann, og hann var raudleitur, fagureygdur, og fridur siónum.

Þá sagde Drottinn: statt upp og smyr hann, þviad hann er það.

13. Þá tók Samuel sitt vidsmiørs horn, og smurde hann, midt á mille sinna brædra. Og ande Drottins magnadest yfer David, frá þeim deige, og þadann í frá. Enn Samuel tók sig upp, og geck til Rama.

14. Enn ande Drottins hvarf frá Saul, og illur ande frá Drottne gerde hann miøg sturladann,

15. Þá søgdu þenarar Saul til hans: siá! einn illur ande frá Gude sturlar þig miøg.

16. Seige vor Herra til sinna þenara þeirra sem standa fyrer hønum: ad þeir leite upp þann mann sem vel kann ad slá hørpu, so ad nær sá illi ande Guds kemur yfer þig, ad hann leike þá med hende sinne, so það meige letta þínu meine.

17. Þá sagde Saul til sinna þenara: fared, og leited ad þeim manne, sem vel kann ad leika á hliodfæra streinge, og leided hann til mín.

18. Þá svarade einn af sveinunum, og sagde: siá! eg hefe sed einn, son þess manns sem ad heiter Isai, og byr í Bethlehem, hann kann vel á streingleik; hann er sterkur madur, vígur vel, og skinsamur í málum manna, og dægelegur, og Drottinn er med hønum.

19. Þá sende Saul bod til Isai, og let seigia hønum: send þinn son David til mín, þann sem hiardar gæter.

20. Þá tók Isai einn asna, og brand, og eina flosku víns, og eitt kid, og sende það Saul med sínum syne David.

21. Og so kom David til Saul, og þiónade hønum, og hann hafde hann miøg kærann, og hann vard hans skialldsvejnn.

22. Og Saul sende bod til Isai, og let seigia hønum: leifdu David ad vera hiá mer, þviad hann hefir funded nád fyrer mínum augum.

23. Enn þá Guds ande kom yfer Saul, þá tók David sína hørpu, og lek med sinne hende, þá endurlifnade Saul, so ad hønum batnade, og sá illur ande flyde frá hannum.

## 17. Capitule.

1. Nú drogu Philistei her samann til bardaga, og søfnudust samann í Socho, í (lande) Juda, og settu sínar herbúder millum Socho og Aseka, vid lands enda Damim.

2. Enn Saul og Israels menn komu samann, og settu sínar herbúder í Eikedal, og biuggust til bardaga á móte Philisteis.

3. Enn Philistei stódu ødrumeigenn á einnre hæd, og þeir Israelitar ødrumeiginn á annare hædinne, so ad eitt dalverpe var á mille þeirra.

4. Þá geck framm, af herbúdum Philisteanna, einn Rise, hann het Goliath, af Gath; hann var sex alna og þverar handar hár,

5. Hann hafde einn hiálm á høfde, og hringa panzara, og vigtenn á hans Panzara var fimm þusund sikla kopars,

6. Brynhosur hafde hann af eyre, á beinum, og eyrskiølld á herdum.

7. Og hans spiotskapt var sem vefiar rifur, og járned hans spiots vo sex hundrud siklos járns, og hans skialldsveinn geck fyrer hønum.

8. Og hann stód vid, og hrópade á Israels herlid, og sagde til þeirra: þvi erud þer út farner ad búast til bardaga? em eg eigi einn Philisteus, enn þer þiónar Sauls, útveled einn af ydur, og láted hann koma nidur hingad til mín,

9. Ef hann getur barest vid mig,

og yfer unned mig, so skulum ver vera ydrer þenarar. Enn ef eg get yfer unned hann, og sellt hann, þá skulud þer vera vorer þenarar, og þióna oss.

10. Og þesse Philisteus sagde: á þessum deige hefi eg hædelega talad vid Israels her, láted mig fá þann mann, ad hann gange á hólm vid mig.

11. Nú sem Saul, og allur Israels lydur heyrde þessa Philistei ord, þá bløskrade þeim, og þeir urdu miøg hrædder.

12. David var eins manns sonur af Ephratha, af Bethlehem, í Juda, sem het Isai, hann hafde átta sonu, og var gamall á døgum Saul, og vel alldradur á millum annara manna.

13. Og þrír þeir stærstu syner Isai voru í herfør med Saul, sá ellste het Eliab, annar Abinadab, enn þride Samma,

14. Enn David var yngstur. Enn sem þesser þrír ener ellstu fóru í stríd med Saul,

15. Þá fór David heim aptur frá Saul, ad gæta hiardar síns fødurs í Bethlehem.

16. Enn þesse Philisteus geck snemma framm, bæde kvølld og morgna, og baud sig framm í fiørutíu daga.

17. Enn Isai sagde til síns sonar Davids: tak fyrer þína brædur þetta Epha ara, og þesse tíu braud, og far sem skiotast til þinna brædra, þar þeir eru í hernum,

18. Og þessa tíu ferska osta, og ber þá til høfudsmannsins, og verd vís um þína brædur, hvert þeim lídur vel, og tak hvad þeir bifala þer.

19. Enn Saul, og þeir aller Israels menn voru í Eikedal, og børdust vid Philisteana.

20. Þá reis David upp snemma um morgunenn, og feck hyrdurum saudena, og geck sinn veg, og bar þad sem Isai hafde boded hønum, og kom ad vagnborgenne. Þá var herfolked útfared, og komed í sín herklæde, og æpte heróp,

21. Þviad Israel háfde fylkt sínu lide: þeir Philistei vorn og búner til bardaga á mót þeirra her.

22. David let í geymslu þad hann bar, hiá þeim sem fangenn geymde, og rann framm til hersins, geck þar inn, og heilsade sínum brædrum.

23. Og sem hann var ad tala vid þá, siá þú, í því kom framm sá rise, sem het Goliath, Philisteus, af Gath; hann geck framm af her Philistinorum, og talade so sem fyrr, og David heyrde þad.

24. Eunhver madur í Israel, þá hann leit þennann mann, flyde hver um sig fyrer hønum, og miklum otta sló yfer alla.

25. Og hver madur af Israel sagde: hvert sástu þennann mann framm ganga? þviad hann er komenn ad tala hádung til Israel. Og hver sem hann feller þann vill kongurenn sæma miklum audæfum, og gefa hønum sína dottur, hann vill og gera friálst hans fødurs hús í Israel.

26. Þá sagde David til þeirra manna sem stódu hiá hønum: hvad skal sá fá sem vinnur þennann Philisteum, og burt tekur þetta bríxle af Israel? þvi hver er þesse hinn óumskorne Philisteus, sem so bríxlar þeim lifanda Guds her?

27. Þá andsvarade fólked David so sem ádur: þvilíkt skal sá fá, sem feller þennann mann.

28. Enn sem hans ellste broder Eliab heyrde, hvad hann talade vid manneun, vard hann reidur vid

David, og sagde: Þvi komst þú nidur hingad? og hvar fyrer skildest þú vid þá fáeina saude geymslulausa í eydemørku? Þecke eg ofdirfd þína vel, og illsku hiarta þíns, þú ert hingad komenn ad siá bardagann.

29. David svarade: hvad hefi eg þá gert, er mer þad eigi bifalad?

30. Og hann snere frá hønum til annars, og talade somu ord sem fyrr. Enn fólked svarade hønum sem ádur.

31. Og sem þeir heyrdu þesse ord, sem David sagde, þá kunngerdu þeir þad Saul. Og hann let kalla á hann.

32. Og David sagde til Saul: einskis manns hiarta þarf ad skelfast þess vegna. Þinn þenare skal fara ad beriast vid þennann Philisteum,

33. Þá sagde Saul til Davids: eigi getur þu fared ímóte þessum Philisteo, ad beriast vid hann, þvi þú ert einn smásveinn, enn hann er bardaga madur frá sínum barndóme.

34. David sagde til Saul: Þinn þenare gætte hiardar fødur síns, og þar kom eitt Leon, og einn biørn, og tók einn saud í burt frá hiørdenne.

35. Og eg rann epter hønum, og sló hann, og frelsade so saudenn úr hans munne. Enn sem hann reiste sig upp í móte mer, þá greip eg hann, og tók eg í hans kampa, og sló eg hann so í hel.

36. So hefir þinn þenare drepid bæde Leon og biarndyr. So mun og verda þesse óumskorne Philisteus so sem einn af þeim. Þvi hann hefir lastad lifanda Guds her.

37. Og David sagde: sá Drottinn sem frelsade mig frá Leonenu og byrnenum, hann mun frelsa mig frá þessum Philisteara. Þá sagde Saul vid David: far þú, Drottinn se med þer.

38. Og Saul færde David í sín klæde, og sette eyrhiálm á hans høfud, og færde hann í einn Panzara.

39. Og David gyrdte hans sverde yfer sín klæde, og tók til ad ganga, þvi hann hafde alldrei reynt þad fyrr. Þá sagde David til Saul: eige kann eg ad ganga so, þvi eg hefe eigi þar vana til, og hann lagde (herklædenn) af ser.

40. Og hann tók sinn staf í hønd, og útvalde ser fimm slétta steina, af einum læk, og kastade þeim í sína hiártøsku, sem hann hafde, og í seckenn, og tók staflaungu í hønd ser, og geck so ímóte þessum Philisteara.

41. Goliath geck framm og fór ímót David, og hans skialldsveinn geck undann hønum.

42. Enn sem Philistearenn gerde ad líta vid, og sá David, forsmáde hann hann, þviad David var einn smásveinn, raudleitur og dægelegur.

43. Og Philistearinn sagde til Davids: hvert em eg hundur, ad þú kemur med einn staf ímóte mer? og hann bølvade David vid sinn Gud,

44. Og sagde til hans: kom til mín, eg skal gefa þitt holld fuglum loptsins, og dyrum jardar.

45. Enn David sagde til Philisteárans: þú kemur ímóte mer med sverd, spiot, og skiølld, enn eg kem ímóte þer í Drottins Zebaoths nafne, hver ad er Gud Israels hers, þann þú hefir spottad.

46. Á þessum deige mun Drottinn gefa þig í mína hønd, so ad eg skal fella þig, og taka þitt høfud af þer, og gefa í dag líkama Philistea hers fuglum loptsins, og hrækvikendum jardar, so ad øll lønd vite, ad Israel hefir einn Gud,

47. Og allur þesse almúge skule

fá ad vita, ad hiálp Drottins er eigi komenn af sverde og spiote, þviad bardagenn er Drottins, og hann mun gefa ydur í vorar hendur.

48. Enn sem Philistearinn stód upp, geck hann framm, og ætlade ad David. Þá skundade David, og rann frá herunum imót Philistearanum.

49. Og David greip sinne hende í toskuna, og tók einn stein þar út af, og sleyngde sídann, og hæfde beint framann í ennid á Philistearanum, so ad steinenn feste í hans enne, enn Goliath fell á framm til jardar á sitt andlit.

50. So sigrade David þennann Philisteum med slaungu og steine, og sló hann íhel. Og þá David hafde ecke sverd í sinne hende,

51. Hliop David ad Philistearanum, og tók hans sverd, og rickte þvi úr balenu, og drap hann, og hió af honum høfuded þar med. Enn þegar ad Philistei sáu þad, ad þeirra sterkaste (kappe) var fallenn, løgdu þeir á flótta.

52. Enn Israels menn og Juda, tóku sig upp, æptu herop, og softu epter Philistearanum, allt þangad til menn komu í dalenn, og allt ad Ekrons portdyrum. Og Philistei fellu slegner á veiginum til porta Gath og Ekron.

53. Og Israels børn hurfu aptur af flottareckstreunum þeirra Philisteanna, og ræntu herbúder þeirra.

54. Enn David tók Philistearans høfud, og bar þad til Jerusalem, enn vopn hans lagde hann í tialldbúd sína.

55. J þann tíma, sem Saul sá, ad David geck út á móte þeim Philisteo, sagde hann til Abners: síns herhøfdingia, hvers sonur er sá sveinn? Abner svarade: so sannarlega sem þín sál lifer, kongur, þá veit eg þad eigi.

56. Kongurenn svarade: far og spyr ad, hvers sonur ad sá sveinn se.

57. Þá David kom nú aptur, og hafde dreped Philistearann, tók Abner hann, og leidde hann inn fyrer Saul; enn David hellt á Philistearans høfde í sinne hende.

58. Og Saul sagde til hans: hvers sonur er þú unge sveinn? David svarade: eg em sonur þíns þenara Isai í Bethlehem.

## 18. Capitule.

1. Nú sem David hafde endad rædu sína vid Saul, þá kveiktist ástar band í hiarta Jonathans og Davids, og Jonathan elskade David sem sitt eiged hiarta.

2. Og á þeim deige tók Saul David ad ser, og let hann eigi koma aptur í síns fødurs hús.

3. Enn Jonathan og David bundu sáttmál med ser, þvi hann elskade hann so sem sitt eigid hiarta.

4. Og Jonathan tók sinn kyrtel af ser, sem siálfur hann klæddist, og gaf David, þar med sína skickiu, sitt sverd, boga sinn, og bellte,

5. Og David geck út þangad sem Saul sende hann, og hegdade ser viturlega, og Saul sette hann yfer strídsfólked, og hann var gedþeckur øllum mønnum, og Sauls þenurum.

6. Þad bar til, ad þá hann var komenn aptur frá bardaga Philisteanna, ad kvinnur af øllum Israels borgum gengu út imót Saul konunge, med saung og danse, med bumbum, med glede, og med gigum.

7. Og kvinnurnar sungu til skiptis, leku fyrer, og søgdu: Saul vann sigur á þusund, enn David á tíu þusund.

8. Þá reiddist Saul miøg, og þad ord mislíkade hønum, og sagde: þær

gáfu David tíu þusund, enn mer eina þusund, hvad skortar nema kongdominn?

9. Og Saul leit eigi rettum augum til Davids, frá þeim deige ætíd sídann.

10. A nærsta deige kom illur ande Guds yfer Saul, og hann spáde heima í sínu huse, enn David lek á hørpu sína med hende sinne, sem hann var daglega vanur. Og Saul hellt á einu spiote,

11. Og skaut því til hans, og hugsade: eg vil nísta David med spiote upp vid veggenn. Enn David veik ser tvær reisur frá honum.

12. Og Saul óttadest fyrer David, þviad Drottinn var med honum, og var vikinn frá Saul,

13. Epter þad skickade Saul David frá ser, og sette hann høfdingia yfer þusund menn, og hann geck út og inn fyrer fólkenu.

14. Og David hellt sig forsiálega í øllum sínum gerningum, og Drottinn var med honum.

15. Og sem Saul sá þad, ad hann hegdade ser so forsiálega, þá hræddist hann David.

16. Enn allur Israels lydur, og Juda, elskade David, þviad hann geck ut og inn fyrer þeim.

17. Og Saul mællte vid David: siá! eg vil gipta þer mína ellstu dotter Merob, vertu ad eins hraustur, ad heya bardaga Drottins. Þvi Saul hugsade svo, ei skal eg leggia mínar hendur á hann, helldur skal hann koma í hendur þeirra Philistea.

18. Enn David svarade Saul: hver em eg, og hvad er mitt líf, og mitt fødurkin í Israel, ad eg skule vera kongs mágur?

19. Nú sem sá tíme kom, ad Merob, dotter Sauls, skyllde giptast David, þá vard hun gefenn Adriel Meholathiter.

20. Enn Michol, dotter Sauls, elskade David. Sem Saul feck þad ad vita, sagde hann: þad er rett,

21. Eg vil gefa honum hana, so hún verde honum til falls, so ad hendur Philisteanna falle yfer hann. Og hann sagde til Davids: á þessum deige skallt þú verda minn mágur ad annare minne dottur.

22. Og Saul baud sínum þenurum ad tala heimuglega vid David, og seigia: siá þú! kongurenn hefir mikla þocknan á þer, og aller hans þenarar hafa þig kærann, so verd nú kongsins mágur.

23. Og þesse ord tøludu Sauls þenarar fyrer Davids eyrum. Enn David svarade: þyker ydur þad so litels verdt ad vera kongsins mágur? eg em einn fátækur og litels háttar madur.

24. Þenarar Sauls kunngerdu Saul aptur ord Davids, og søgdu: soddann ord hefir David talad.

25. Enn Saul sagde: seiged so til Davids: kongurenn gyrnest enga morgungáfu, utann hundrad forhúder af þeim Philisteis, so ad golldenn verde hefnd kongsins óvinum. Þvi Saul hugsade ad fella so David fyrer hondum Philisteanna.

26. Þesse ord fluttu hans þenarar til Davids. Og David líkade þetta vel, ad verda mágur kongsins.

27. Og fyrer akvedenn tíma bió David sig, og fór med sína menn, og sló af Philisteis tvø hundrud manns. Og David bar med ser þeirra forhúder, og fullnægde kongenum med tølunne, so ad hann yrde mágur kongsins. Þá gaf Saul honum Michol sína dottur til eigennkvinnu.

28. Enn Saul sá, og merkte, ad Drottinn var med David. Og Michol, dotter Sauls, elskade David.

29. Þá óttadest Saul enn meir

David, og feck þá standskap til hans alla sína daga.

30. Og þá Philisteanna høfdingiar heriudu, þá vard David forsiálare enn aller þenarar Sauls, nær sem þeir áttu út ad fara, so hans nafn vard hátt prísad.

## 19. Capitule.

1. Enn Saul mællte vid sinn son Jonathan, og so alla sína þenara, og baud þeim ad drepa David. Enn Jonathan, sonur Sauls, elskade David miøg.

2. Og kunngerde hønum þetta, og sagde: minn fader Saul stundar epter ad drepa þig, þar fyrer gæt þín á morgun, og fel þig.

3. Enn eg skal fara út og standa hiá fødur mínum á morkenne, þar þú ert, og skal eg tala vid minn fødur um þig, og hvers eg verd ávís, skal eg kunngera þer.

4. Og Jonathan talade vid sinn fødur Saul hid besta um David, og sagde til hans: kongurenn gerc eigi þann glæp á sínum þenara David, þviad hann hefir ecke misgert vid þig, helldur eru hans verk þer miøg nytsamleg,

5. Og hann lagde sitt líf í hættu, og sló þann Philisteum, og Drottinn gerde mikla hiálp øllu Israels fólke. Þetta sástu, og vardst gladur vid. Þvi villtu þá glæpast á saklausu blóde, ad þú villt drepa David, án saka?

6. Saul hlydde raustu Jonathan, og sór (seigiande): so sannarlega sem Drottinn lifer, hann skal eigi deya.

7. Þá kallade Jonathan á David, og sagde hønum øll þesse ord, og leidde hann inn fyrer Saul, og hann var fyrer hønum sem fyrr.

8. Þar hófst enn ófridur, og David fór út ad beriast imót Philisteis, og veitte þeim mikid slag, so ad þeir hrucku fyrer hønum.

9. Enn illur ande af Drottni kom yfer Saul, og hann sat í sínu húse, og hellt á einu spiote, enn David lek á hliodfære med sinne hende.

10. Og Saul ætlade ad vísta David í gegnum, vid veggenn, med spiótenu. Enn hann halladest undann Saul, og spioted stód í veggnum, enn David flyde, og komst undann þá sømu nott.

11. Þá sende Saul bod til Davids hús, ad þeir skylldu vakta hann, og deyda ad morgne. Þetta kunngerde hans eigennkvinna Michol David, og sagde: ef þu fordar eigi þinne sálu, á þessare nottu, þá muntu deya á morgun.

12. Þá let Michol hann síga út um eitt vindauga, so hann geck burt, flyde, og komst undann.

13. Og Michol tók eitt mannlíkan, og lagde í sængena, og let eina geitstøku under þess høfud, og hulde þad med klædum.

14. Þá sende Saul bod, og skipade ad sækia David. Enn hun sagde: hann er siukur.

15. Enn sende Saul aptur, og skipade þeim ad skoda David, og sagde: bered hann hingad til mín í sængenne, so hann se drepinn.

16. Enn sem sendemenn komu, siá! þá lá mannlíkan í sængenne, og geitar skinn under høfdenu.

17. Þá sagde Saul til Michol: Þvi hefir þú svikid mig, og láted minn óvin í burt komast? Michol svarade Saul: hann sagde vid mig, lát mig fara, ellegar skal eg drepa þig.

18. David flyde nú, og komst undann, og fór til fundar vid Samuel í Rama, og sagde hønum allt frá, hvad Saul hafde gert hønum, og hann geck med Samuel, og þeir dvøldust í Najoth.

19. Og Saul feck bad ad spyria, siá! David er i Najoth, i Rama.

20. Þá sende Saul menn, ad þeir skylldu færa David til hans. Og þeir sáu þriá spámanna flocka, sem spádu, og Samuel var þeirra tilsiónare. Jafnsnart kom Guds ande yfer sendemenn Saul, so ad þeir spádu med ødrum.

21. Þá Saul spurde þad, sende hann adra menn; þeir spádu og so. Hann sende hina þridiu sendemenn, og þeir spádu einnenn.

22. Þá fór hann og siálfur til Rama. Enn sem hann kom ad þeim stóra brunne, sem stendur i Seku, spurde hann ad og sagde: hvar eru þeir Samuel og David? enn hønum var sagt, siá! þeir eru til Najoth i Rama.

23. Og hann geck þangad, til Najoth i Rama. Og Guds ande kom og so yfer Saul, og hann geck framm, og spáde, þar til hann kom allt til Najoth i Rama.

24. Og hann kastade og so af ser klædum, og spáde fyrer Samuel, og fell framm nakenn allann þann dag, og þá nótt med. Þadann høsst sá ordskvidur, hvert er Saul og á medal spámanna?

## 20. Capitule.

1. David flyde frá Najoth i Rama, kom og talade vid Jonatham: hvad hefi eg gert? hvad hefi eg misbroted? hvert er mitt ránglæte vid fødur þinn? ad hann sæker epter mínu lífe.

2. Enn hann svarade hønum: ei mun so vera, þú skallt ei deya. Siá! minn fader gerer þad alldrei smátt ne stórt, so ad hann seige mer þad eigi ádur, þvi skyllde fader minn dylia mig þessa? þvi má þetta eigi ske.

3. Þá sór David enn framar, og sagde: þinn fader veit vel, ad eg hefe funded nád fyrer þinn auglite, og þvi hugsar hann so, Jonathan skal eigi vita þetta, so hann hryggest ei vid þad. So sannarlega sem Drottinn lifer, og so sannarlega sem þín sál lifer, þá er þar eigi utann eitt fótmál mille mín og dauda.

4. Jonathan sagde til Davids: gera mun eg allt þad vid þig, sem þitt hiarta gyrnest.

5. David svarade hønum: siá! á morgun er mánadar koma, enn eg em þá vanur ad sitia til bords med kononge, so leyf mer nú ad felast á akre, allt til kvøllds á enum þridia deige.

6. Enn spyre þinn fader ad mer, þá svara þú so: David bad mig leyfis, ad hann mætte fara sem snarast til Bethlehem borgar sinnar, þviad hans øll ætt helldur þar eitt árlegt offur.

7. Ef hann þá svarar: ad þád se vel, þá mun þínum þioni fridt vera. Enn verde kongurenn reidur, þá máttu merkia, ad þar er illt ályktad hiá hønum.

8. So ger nú miskunarverk á þioni þínum, þvi þú hefir gert einn felagskap vid mig þinn þion i auglite Drottins. Enn sinnest nockur misgerningur med mer, þá drep þú mig, þvi hvar fyrer villt þú færa mig til þíns fødurs.

9. Jonathan svarar: þad se langt frá mer, ad ef eg kann merkia, ad minn fader hugsar þer nockud illt, ad eg skyllda eigi láta þig vita þad.

10. David mællte: hver skal kunngera mer þad, ef fader þinn svarar þer þunglega?

11. Jonathan sagde til Davids: kom, og látum ockur ganga út á akurenn, og þeir gengu báder út á akurenn,

12. Þá ſagde Jonathan til Davids: Drottinn Gud Iſraels! ef eg formerke á mínum fødur, á morgun, og þann þridia dag, ad David mune fridt vera, og ef eg ſende þer eigi bod þar um, og ber þad til þinna eyrna,

13. Þá gere Drottinn Jonathani þad og þad. Enn hugſe minn fader nockud illt ad gera þer, þá ſkal eg kunngera þad fyrer þínum eyrum, og ſleppa þer, ſo þú ganger í burt med fride. Og ſe Drottinn med þer, ſem hann var med mínum fødur.

14. Og hallde eg eigi þetta, þá gere engenn Guds miſkunſeme vid mig, ſo leinge ſem eg life, og eigi helldur þá eg em daudur.

15. Og þá Drottinn heſir afmád ſerhvern Davids óvine af landenu, ſo tak eigi þína miſkun frá mínu húſe æſinlega.

16. So gerde Jonathan eitt ſáttmál vid Davids hús (og ſagde): krefe Drottinn þeſs af Davids óvina hende.

17. Og Jonathan ſór David enn frammar, ſo elſkade hann hann, þvi hann elſkade hann ſem ſína eigenn ſál.

18. Og Jonathan ſagde til hans: á morgun er hátíd hins nya mánadar, þá mun ſpurt verda ad þer, þvi þín mun ſaknad verda, þadann ſem þú ert vanur ad ſitia.

19. Kom ofann hingad ſem ſkiótaſt á þridia deige, og far einhverſtadar, ad fela þig á virkum deige, og ſet þig hiá þeim ſteine Aſel.

20. So vil eg ſkiota þremur ørvum utann hiá ſteinenum, eins ſem eg villde ſkiota til hæfis,

21. Og ſiá þú, þá ſkal eg ſenda minn ſvein, far og ſæk ørvarnar. Ef ſeige eg þá til ſveinſins, ſiá þú, ørvarnar liggia hingad betur á baki þer, ber þær hingad, þá kom þú, þvi þá er fridt, og háſkalauſt, ſo ſannarlega ſem Drottinn lifer,

22. Enn ef eg ſeige til ſveinſins, ſiá þú, ørvarnar liggia frammbetur frá þer, þá far þu í burt, þviad Drottinn heſir láted þig ganga.

23. Enn hvad vid høfum talad med ockur, þá er Drottinn á mille þín og mín æfenlega.

24. Og David falde ſig á akrenum: og nu ſem mánadar hátídenn kom ſette kongurinn ſig til bords ad eta.

25. Og ſem hann var ſeſtur í ſínum ſtad, þar ſem hann var vanur ádur vid vegginn, þá ſtód Jonathan upp, enn Abner ſette ſig hid nærſta hiá Saul, og þeir ſøknudu Davids úr ſínu ſæte.

26. Og Saul talade eigi til á þeim deige, þvi hann hugſade: hønum heſir eitthvad adboreſt, ad hann er eigi hreinn.

27. Þann annann dag nymánadarins, þá ſaknad var Davids úr hans ſtad, þá ſagde Saul til ſíns ſonar Jonathan: fyrer þvi kemur eigi ſonur Iſai til bords, hverke í gær, ne ſo helldur í dag?

28. Jonathan ſvarade Saul: hann bad mig, ad hann mætte fara til Bethlehem,

29. Og ſagde: leyf mer ad fara, þviad míner frændur hafa eitt offur í ſtadnum, og minn broder heſir ſialfur boded mer. Hafe eg nú fundeð nád fyrer þínu auglite, þá vil eg þangad, ad ſiá mína brædur, og fyrer þeſſa ſkulld er hann eigi komenn til kongſins bords.

30. Þá reiddeſt Saul ákaflega Jonathan, og ſagde til hans: þú hinn óhlyduge ſkalkur! eg veit vel, ad þú heſir útvaled þennann ſon Iſai, þer og þinne vanartugre modur til ſkammar.

31. Þviad ſo leinge ſem þeſſe ſonur

Þsai lifer á jørdunne, þá verdur hverke þú ne þitt kongs rike stadfest. So send nú af stad, og láthu hafa hann hingad til mín, þvi hann skal deya.

32. Jonathan svarade sínum fødur Saul, og sagde til hans: þvi skal hann deya? hvad hefir hann gert?

33. Þá skaut Saul spiote epter hønum, so hann skyte hann í gegnum. Þá merkte Jonathan, ad hans fader hafde endelega einsett ser, ad hann villde drepa David,

34. Og hann geck frá bordenu med grimmum hug, og át ei braud, á ødrum deige þeirrar mánadar hátídar, þvi hann hriggdest vegna Davids, fyrer søkum þess, ad hans fader hafde so fordæmt hann.

35. Ad morgne dags geck Jonathan út á akurenn, þangad sem þeir David høfdu mællt, og hans smásveinn med hønum,

36. Og hann sagde til sveinsins: hlaup og sæk þá ør sem eg skyt af. Enn sem sveinnenn rann af stad, skaut Jonathan einne ør framm yfer hann.

37. Enn sem sveinnenn kom þangad sem Jonathan hafde pílunne skoted, þá kallade Jonathan epter hønum, og sagde: pílann liggur leingra framm frá þer.

38. Og enn kallade hann meir epter hønum: flyt þer snart, og statt eigi vid. Sveinn Jonathans tók saman ørvarnar, og bar þær til síns Herra.

39. Og sveinnenn visse eigi til hvers þetta kom; enn þeir Jonathan og David vissu alleina þesse rád,

40. Epter þad feck Jonathan sínum sveine sín vopn, og sagde til hans: far þú, og ber þetta í stadinn.

41. Sem sveinnenn var komenn þar inn, þá stód David upp af þeim stad á mót sudre, og fell framm á sitt andlit til jardar, og badst fyrer þrem sinnum. Og þeir Jonathan mynntust hver vid annann, og gretu báder, þó David mikiu meir.

42. Og Jonathan sagde til Davids: far nú í fride, hvad sem vid báder høfum svared til samans í nafne Drottins, og sagt: Drottinn vere millum mín og þín, millum þíns afkvæmis og míns, þad vare æfinlega.

43. Og Jonathan tók sig upp, og kom í borgena.

## 21. Capitule.

1. David kom til Nobe, til Achimelechs kennemanns. Og Achimelech hnickte vid, þá ed hann mætte David, og sagde til hans: þvi kemur þú so alleina, so ad eigi er einn madur med þer?

2. Enn David svarade Achimelech preste: kongurenn bifalade mer eitt erinde, og sagde til mín: lát engann vita, hvar fyrer eg hefe sendt þig, eda hvad eg hefe bifalad þer, þvi hefi eg og so sendt mína menn hingad og þangad frá mer.

3. Enn hafer þú nockud þer í hende, eitt braud eda fimm, þá gef mer þau í mína hønd, eda hvad þú getur funded.

4. Presturenn svarade David, og sagde: eg hefe ecke almennelegt braud under minne hende, helldur þau sem heiløg eru, hafe ad eins sveinarner hallded ser frá kvenna samvistum.

5. David svarade kennemanneum, og sagde: kvinnurnar voru þría daga geymdar fyrer oss, þá eg fór út, og sveinanna ker voru heiløg. Enn se þesse vegur óheilagur, þá skal hann helgast í dag fyrer kerinn,

6. Þá gaf kennemadurenn hønum af þvi heilaga, þvi þar var eigi

annad braud, utann þau skodunar braud, sem upphafenn voru fyrer Drottinn, ad menn skylldu leggiaønnur ny braud aptur, þá þau væru í burt tekinn, á sama deige.

7. Enn þar var einn madur innelucktur þann dag fyrer Drottni, af þenurum Sauls, hver ed het Doeg, einn Edomite, hann var máttkastur af hyrdurum Sauls.

8. Og David sagde til Achimelech: hefir þú eigi under þinne hende spiot ne sverd? eg tók ei mitt sverd, ne vopn, med mer, þviad so bar brádann ad um kongs erindet.

9. Kennemadurenn svarade: Philistearans Goliaths sverd, hvern þú slóst í Eikedal, er her, og er sveipad í einum møttle, tilbaka vid líkyrtelenn, viler þú þad hafa, so tak þad, þviad her er eigi annad enn þetta. David svarade: ecke annad er jafnt þvi, fá þú mer þad.

10. Og David tók sig upp, og fordadist Saul, og kom til Achis, sem var kongur í Gath,

11. Enn Achis þenarar søgdu til hans: Þad er David, kongur landsins, af hverum þær sungu í dansenum, og søgdu: Saul vann sigur á þusund, enn David á tíu þusundum.

12. David hugfeste þesse ord, og var hræddur miøg vid Achis kong af Gath.

13. Hann umbreitte ásynd sinne fyrer þeim, og letst vera galenn í þeirra høndum, og rekur sig á dyrnar í portenu, og hans froda rann út í hans skegg.

14. Þá sagde Achis til sinna þenara: sjáed! þer sjáed! ad þesse madur er vitstole, þvi leiddud þer hann fyrer mig?

15. Eda hefi eg eigi noga vitlausa, ad þer leiddud hann þó hingad, ad hann skyllde ærast her fyrer mer? skyllde hann koma í mitt hús?

## 22. Capitule.

1. David geck þadann, og flyde í hellerinn Adullam. Enn sem hans brædur, og allt hans fødurs hús heyrde þad, komu þeir ofann þangad til hans.

2. Og alls slags menn, sem í nockore neyd, skulldum, og hiartasorgum voru, søfnudust til hans, og hann vard þeirra høfdinge, so ad þar urdu hiá hønum nær fiøgur hundrud manns.

3. Sídann geck David þadann til Mizpe, í land Moabitarum, og sagde til kongsins í Moab: leyf mínum fødur, og minne modur, ad ganga her út og inn, hiá ydur, þar til ad eg veit, hvad Gud vill gera vid mig.

4. Og hann let þau hiá Moabita konge, og þau voru hiá hønum, so leinge sem David var í Kastalanum.

5. Enn prophetinn Gad sagde til Davids: ver þú eigi leingur í Kastalanum, helldur far burt, og kom í land Juda. So fór David, og kom í þann skóg sem heiter Hareth.

6. Þad spurde Saul, ad David, og þeir menn sem hann hafde hiá ser, voru í auglios komner. Nú sem Saul bió í Gibea, under einum lunde í Rama, hellt hann á spióte í sinne hende, og aller hans þenarar stódu í kringum hann.

7. Þá sagde Saul til sinna þiónara, sem í kringum hann stódu: heyred børn Jemini, mun sonur Isai gefa ydur øllum akra og víngarda, og gera ydur alla ad høfdingium yfer þusund, og yfer hundrad?

8. Ad þer hafed aller so saimbundnir ydur á móte mer, og þar er enginn sem þvílíkt hefir opennberad

mínum eyrum, fyrst ad minn sonur hefir gert samband vid son Isai. Og þar er engenn af ydur, sem slíkt harme minna vegna, og seige mer þad, þviad minn sonur hefir uppvaked minn þenara í móte mer, ad hann situr um mig, so sem þad auglioft er.

9. Þá svarade Doeg Edomite: hver ed stód hiá Sauls þenorum, og sagde so,: eg sá son Isai, ad hann kom í Nobe til Achimelechs, sonar Ahitobs,

10. Hann fór til fretta vid Drottinn hans vegna, og gaf honum vister, og feck honum sverded þad Goliath Philisteus hafde átt.

11. Þá sende kongurinn af stad, og let sækia Achimelech kennemann, son Ahitobs, og allt hans foburs hús, þá kennemenn, sem voru í Nobe. Og þeir komu aller til kongsins.

12. Og Saul sagde: heyrdu sonur Ahitobs. Hann svarade: her em eg, minn Herra.

13. Saul sagde til hans: hvar fyrer bundud þid samtok á móte mer, þú og sonur Isai, so þú gafst honum brand, og feckst honum sverd, og rádgadest vid Gud fyrer hann, ad uppvekia hann ad sitia um svikræde vid mig, so sem þad augliost er?

14. Achimelech andsvarade kongenum, og sagde: hver er þvilíkur á medal allra þinna þenara sem David, so dyggur, og kongsins mágur, hlydenn þínu bode, og heidarlega halldenn í þínu húse?

15. Mun eg þá fyrst biriad hafa í dag ad rádgast um vid Gud hans vegna? þad se langt frá mer, ætle eigi kongurenn sínum þenara slíkt í ollu mínu foburs húse, þviad þinn þenare visse ecke af ollu þessu, hvorke miked ne líted.

16. Kongurenn svarade Achimelech: þú skallt sannarlega deya, þú og allt þitt foburs hús.

17. Og kongurenn sagde til sinna þenara, sem hiá honum stódu: snúed ydur, og drepeb kennemenn Drottins, þviad þeirra hendur eru og med David, og þeir vissu þá hann flyde, enn kunngerdu mer þad eigi. Enn kongsins þenarar villdu eigi leggia sínar hendur á Drottins kennemenn ad drepa þá.

18. Þá talade kongurenn til Doeg: snúst þú vid, og vinn á prestunum, Doeg Edomite snere ser vid, og vann á kennemonnunum. Og so dóu á þeim deige fimm og áttatíu menn, sem skrydder voru lin-lífs kyrtlum,

19. Hann sló og kennemanna borgena Nobe med sverds eggium, bæde menn og kvinnur, born og brióstmylkinga, uxa, og asna, og saude.

20. Enn einn komst undann af sonum Achimelechs, sonar Ahitobs, hann het AbIathar, og flyde til Davids,

21. Og kunngerde honum, ad Saul hafde dreped Drottins kennemenn,

22. Þá sagde David til AbIathar: sannarlega visse eg þad á þeim deige, þá Doeg Edomite var þar, ad hann munde seigia þad Saul. Eg em sekur állra þeirra sálna þíns foburs húss.

23. Nú vert þú med mer, og óttast eigi, þviad hver sem leitar epter mínu lífe, sá skal og leita epter þínu lífe, þú skallt holpenn verda medur mer.

## 23. Capitule.

1. Þau tídende voru sogd David: siá! Philistei strída á Kegila, og ræna þeirra kornhlodur.

2. Þá spurde David Drottinn ad, og sagde: skal eg fara þangad, og slá þessa Philisteos? og Drottinn sagde til Davids: far þangad, og muntu slá Philisteos, so þú frelser (borg) Kegila.

3. Enn þeir menn sem voru med David sögdu til hans: siá! ver erum med ótta her í Juda, og vilium fara í Kegila ímót herlide þeirra Philistea?

4. Þá spurde Dávid Drottinn í annann tíma ad þessu, og Drottinn svarade hönum, og sagde: rís þú upp, og far ófann til Kegila, því eg vil gefa Philisteos í þínar hendur.

5. So ferdadest David med sínum mönnum til Kegila, red til bardaga vid Philisteos, og rak burt þeirra tvikke, og veitte þeim miked slag. So frelsade David þá í Kegila.

6. Þvíad þá AbJathar, sonur Achimelechs, flyde til Davids, til Kegila, þá bar hann líffyrtelinn nidur med ser.

7. Þá fretteSaul, adDavid var komenn til Kegila, þá sagde hann: Gud hefir nú gefed hann í mínar hendur, ad hann er innelucktur, þar hann er komenn nú í einn stad, hivaradann med portum og slagbröndum.

8. Og Saul let samannkalla allt sitt fólk til strids, ofann til Kegila, ad sitia um David og hans menn.

9. Enn semDavid fekk þann kvitt, ad Saul hugsade hönum illt, sagde hann til AbJathar prests: fær mer hingad líffyrtelinn.

10. Og David sagde: Drottinn! Þú Israels Gud! þinn þenare hefir fenged þann kvitt, ad Saul er nú þess sinnis, ad hann vill koma her ófann til Kegila, þennann stad ad eydeleggia minna vegna.

11. Munu þá borgarmenn í Kegila frammselia mig í hans hendur? og munSaul koma ófann hingad, so sem þinn þenare hefir heyrt? Drottinn Gud Israels! undervísa nú þetta þínum þioni. Og Drottinn svarade: hann mun koma ofann.

12. David sagde: munu þá borgarmenn Kegila frammselia mig, og mína menn, í hendurSaul? Drottinn svarade: já.

13. Þá tók David sig upp, og hans menn, sem voru nær sex hundrud, og fóru út af Kegila, og gengu þangad sem þeir kunnu. Enn sem Saul fekk ad vita, ad David var slúenn af Kegila, þá yfergaf hann sína reisu.

14. Enn David dvaldest í eydemörku, í vigguú víge, og var uppá fiallenu, í eydemörku Siph. Saul sókte epter hönum alla sína daga, ennGud gaf hann eigi í hans hendur.

15. Og David merkte, ad Saul var útdreigenn, ad leita epter hans lífe. Enn David hellt sig í eydemörku Siph, á skógenum.

16. Epter þetta tók sig uppJonathan, sonur Sauls, og fór til fundar vid David, í skogenn, og styrkte hans hendur í Gude,

17. Og sagde til hans: óttast þú eigi; hönd Sauls, fodurs míns, skal eigi sinna þig, og þú munt verda konongur yfer Israel. So vil eg verda nærstur hiá þer. Og minn fader veit allt þetta vel.

18. Og þeir bundu báder einn sáttmála í áuglite Drottins; og David vard epter í skogenum, enn Jonathan hvarf aptur til síns heimelis.

19. Enn þeir Siphitar fóru upp tilSauls í Gibea, og sögdu: er eigi David hiá oss í fylsnum, í víge því sem er á skoge, á þeirre hæd Hachi=

la, hvör ad liggur til hægre handar eydemerkur?

20. Pvi fare nú kongurenn ofann, epter allre sinne villd, þá vilium ver koma honum í kongsins hendur.

21. Þá sagde Saul: blessader seud þer af Drottni, ad þer hofdud medaumkan med mer:

22. Fared nú aptur af stad, og verded enn nú vísare, ad þer bæde vited og siáed í hverium stad hans fætur voru, og hver hann hefir sed þar, þviad mer er sagt, ad hann se slægur.

23. Rannsaked og njosned um oll plats, þar hann felst, og komed til mín aptur, nær þer hafed öruggа vissu þar um, þá vil eg fara med ydur, se hann í landenu, þá vil eg leita epter honum á medal allra þusunda í Juda.

24. Þá tóku þeir sig upp, og gengu til Siph undann Saul. Enn David og hans menn voru í eydemorku Maon, á slettlendunum, sem liggia til hægre handar hiá eydemorkenne.

25. Þá nú Saul fór med sínum monnum ad leita, þá feck David þad ad vita. Og hann fór ofann ad biargenu, og var í eydemorku Maon. Þá Saul frette þad, fór hann þegar epter David, á eydemörku Maon.

26. Og Saul, med sínum monnum, geck ödrumeigenn fiallsins; David og hans menn voru ödrumeigenn fiallsins. Enn sem David flyter ser ad komast undann Saul, þá tók Saul med sínum monnum ad kríngia öllumeigenn um David, og hans menn, ad hann villde grípa þá.

27. J þvi bile kom þar sendemadur til Sauls, og sagde: flyt þer, og kom snart, þvi Philistei eru fallner inn í landed.

28. Þá hvarf Saul aptur, og let af ad sækia epter David, enn fór í mót Philisteis, þar af var sá stadur kalladur Selamahelkoth,

## 24. Capitulе.

1. Og David fór upp þadann, og dvaldest í slotenu EnGedi.

2. Nú sem Saul kom aptur, frá þeim Philisteis, var honum þegar sagt: siá! David er nú í eydemorku EnGedi.

3. Og Saul tók þríar þusunder úngra manna af öllum Jsrael, og fór af stad ad leita Davids, og hans manna, um kletta steingeitanna.

4. Enn sem hann kom ad nockorum siárbyrgium á veigenum, þá vard fyrer honum einn heller, og Saul geck þar inn ad hylia sínar fætur. Enn David og hans menn sátu í þeim sama heller innarlega.

5. Þá sögdu menn Davids til hans: siá þu! nú er sá dagur kominn, af hverium Drottinn hefir sagt þer, siá! eg vil gefa þinn óvin í þínar hendur, so þu mátt nú gera honum hvad þig lyster. David stód upp, og sneid so hliodlega eitt laf af skickiu Sauls.

6. Enn sem hann hafde skored lafed af Sauls skickiu, þá komst hann vid í sínu hiarta,

7. Og sagde til sinna manna, Drottinn láte þad vera langt frá mer, ad eg skule þad gera ad leggia mína hond á minn Herra, þann smurda Drottins, þviad hann er smurdur Drottins,

8. Og David mykte huge sinna manna med ordum, og let þá eigi reisa sig upp í mót Saul. Nú sem Saul geck út af hellernum, og fór á sinn veg,

9 Þá stód og David upp, og geck út af hellernum, og kallade epter Saul, og sagde: minn Herra kon=

ongur. Saul leit aptur. Og David hneigde sitt andlit til jardar, til bad,

10. Og sagde til Sauls: Þvi hlyder þú þeirra manna ordum, sem so seigia? David leitar epter þinne ólucku,

11. Siá, þíns siálfs augu siá það á þessum deige, ad Drottinn hafde gefed þig á þessum deige í mínar hendur í hellernum. Og það var sagt, ad eg skyllde slá þig íhel, enn eg hlífda þer, þvi eg sagde: eigi vil eg leggia mína hond á minn Herra, þvi hann er sá smurde Drottins.

12. Minn fader: siá! her em eitt laf af þinne skickiu í minne hende (til merkis) ad eg villda eigi slá þig íhel, þá eg skar þetta laf af þinne skickiu. Gættu nú ad, og siádu, ad þar er ecke illt í minne hende, ei helldur nockur misgerningur. Eg hefe og eigi syndgast í móte þer, og þú elltir mína sál, ad þú taker hana í burt.

13. Drottinn mun vera domare millum mín og þín, og hefna mín á þer, enn mínar hendur skal eg ei leggia á þig.

14. Sem menn plága ad seigia í gømlum ordskvid: af ómilldum kemur ódygd, enn mín hønd skal eigi koma yfer þig.

15. Epter hverium leitar þú, kongur Israel? hvern elltir þú? einn daudann hund? eina fló?

16. Drottinn vere domare, og dæme millum mín og þín, og siáe til, og útrette mína søk, og frelse mig af þinne hende.

17. Enn sem David hafde út talad þesse ord vid Saul, þá svarade Saul, David: minn sonur! er það eigi þín rødd? og Saul upphóf sína raust og gret,

18. Og sagde til Davids: þú ert rettlátare enn eg. Það góda hefir þú audsynt mer, enn eg hefe synt þer hid vonda.

19. Og nú hefir þú audsynt mer í dag, hversu vel þú hefir gert vid mig, ad Drottinn hafde gefed mig í þínar hendur, enn þú drapst mig þó eigi.

20. Hvernenn mun nockur finna sinn óvin, og láta hann fara gódann veg frá ser? Drottinn umbune þer gódu fyrer þennann dag, það þú hefir gert mer.

21. Siá nú, eg veit, ad þú munt verda kongur, og Israels kongs ríke stendur í þinne hende.

22. So sver mer nú vid Drottinn, ad þú viler eigi uppræta mitt sæde epter mig, og ei afmá mitt nafn af míns fodurs húse.

23. Og David sór Saul. Sídann fór Saul heim, enn David og hans menn foru aptur í sitt víge.

## 25. Capitule.

1. Og Samuel andadest, og allur Israel safnadest samann, og þeir gretu yfer honum, og jørdudu hann í sínu húse í Rama. Og David tók sig upp, og fór ófann til eydemerkur sem kallast Paran,

2. Og þar var einn madur í Maon, og hafde sína bygd í Carmel, þesse same madur var miøg megtugur, og hann hafde þríar þusunder sauda, og þusund geitsiár. Og það skede so, ad hann klippte sína saude í Carmel.

3. Og hann het Nabal, enn hans kvinna het Abigail, hún var skinsom kvinna, og miøg fríd í andlite. Enn hennar madur var hardrádur og illur í sínum athøfnum, hann var einn af Caleb.

4. Nú sem David heyrde í eydemørkenne, ad Nabal klippte saude sína,

5. Þá útsende hann tíu af sínum

smásveinum, og sagde til þeirra: fared upp til Carmel, og sem þer komed til Nabal, þá heilsed hönum vinsamlega minna vegna,

6. Og seiged: Gud gefe luckn! fridur se med þer og þínu húse, og med öllu því sem þer tilheyrer.

7. Eg hefe heyrt, ad þú hefir þá sem klippa saude þína. Nú þíner hiardargeymarar, sem þú hefir, þeir hafa vered hiá oss, ver höfum eigi fyrerlited þá, og þá brast alldrei neitt á sína tölu, þá stund þeir voru í Carmel.

8. Spyr þína ungu þenara ad, so skulu þeir seigia þer þad. Þar fyrer lát nú sveinana finna nád í þínu auglite, þviad ver höfum hitt á einn gódann dag: gef þínum þenurum, og þínum syne David hvad sem þín hönd finnur.

9. Sem Davids smásveinar komu nú þangad, og höfdu frammbored öll þesse ord Davids vegna fyrer Nabal, þá þögnudu þeir.

10 Enn Nabal svarade Davids þenurum, og sagde: hver er þesse David? og hver er þesse sonur Isai? marger gerast nú þeir þenarar sem flya frá sínum herrum.

11. Skal eg taka mitt braud, vatn, og kiot, sem eg hefe slátrad og tilreidt hiardarklippurum mínum, og gefa þeim mönnum sem eg þecke eigi hvadann þeir eru komner?

12. Davids smásveinar sneru aptur sinn veg, og sem þeir komu aptur til hans, þá tiádu þeir hönum allt þetta,

13. Þá sagde David til sinna manna: binde hver ydar sitt sverd uppá sig; og hver einn batt sitt sverd uppá sig, og David gyrdtest og sínu sverde, og hönum fylgdu fiögur hundrud manns, enn tvö hundrud let hann verda epter hiá þeirra fanse.

14. Enn einn af sveinunum undervísade og sagde Abigail Nabals kvinnu, siá! David sende bod af eydemörkenne, og let blída heilsan bera vorum húsbonda, enn hann snepsade þeim.

15. Enn þeir hafa vered oss miög þarfer menn, hafa eigi forsmád oss, so oss vantade alldrei á vora tölu, medan ver gengum med þeim, þá stund sem ver vorum á mörkenne.

16. Helldur hafa þeir vered vor múrveggur dag og nótt, alla þá stund sem ver geymdum (vora) saude hiá þeim.

17. Þar fyrer hugsa þú nú, og siá, hvad þú villt gera, þviad þar er sannarlega ólucka búenn vorum húsbonda og öllu hans hyske. Enn hann er so illskufullur madur, ad engenn þorer ad seigia hönum nockud.

18. Þá bregdur Abigail vid, og tekur tvö hundrud brauds, tvær flöskur víns, og fimm saude upp sodna, og fimm mæla miöls, og hundrad sticke rusína, og tvö hundrud sticke fíkna, og klyfiade asna.

19. Og hun sagde til sinna sveina: fared undann mer, siá! eg vil koma epter ydur. Enn af þessu sagde hun eigi par sínum manne Nabal.

20. Og sem hún reid á einum asna, og reit framm under eitt fiall, siá! þá kom David, og hans menn þar nidur, ímóte henne, so hún mætte þeim,

21. Enn David hafde ádur sagt: nú vel, eg hefe forgefins geymt allt þad sem þesse (madur) átte í eydemörkenne, so ad þar fargadest eigi neitt af öllu því sem hann átte, nú hefir hann umbunad mer illu fyrer godt,

22. Gere Gud Davids óvinum þetta, og enn meira, ef eg læt nock-

urn life hallda, inn til þess lios dagur er, af þeim sem í vegg af ser vatn lætur, af øllum þeim sem hønum tilheyra.

23. Nú sem Abigail leit David, ste hun jafnsnart af sínum asna, og fell framm á sitt andlit fyrer David, og tilbad á jørdunne.

24. Og fell til hans fóta, og sagde: o minn Herra! kenn þu mer þennann misgerning, og leyf þinne þiónustukvinnu ad tala fyrer þínum eyrum, og virdst þú ad heyra ord þinnar ambáttar.

25. Minn Herra sete eigi sitt hiarta á móte þeim illskufulla manne Nabal, þvi hann er fávís, so sem hans nafn hliodar, og fávitska er med hønum. Enn eg þín ambátt sá eigi míns Herra þenara, þá sem þú útsender.

26. Og nu, minn Herra! so sannarlega sem Drottinn lifer, og so sannarlega sem þín ønd lifer, þá hefir Drottinn hamlad þer, ad þú skyllder eigi úthella blóde, hann hefir og frelsad þína hønd. Verde nú so sem Nabal þíner óviner, og þeir sem vilia mínum Herra illt.

27. Enn her er sú blessan, sem þín þiónustu kvinna færde mínum Herra hingad, gef þetta þenørunum, sem fara med mínum Herra.

28. Enn fyrergef þinne ambátt þessa yfertrodslu, þviad Drottinn mun byggia mínum Herra eitt stadfast hús. Þviad þú heyer bardaga Drottins, og lætur ecke illt finnast med þer, alla þína daga.

29. Og þegar nockur madur vill uppsetia sig, og offækia þig, og sitia um þitt líf, þá mun míns Herra sál vera inne bundenn í bindene lifande (manna) hiá Drottne þínum Gude. Enn sáler þinna óvina munu umslengiast med sløngu.

30. Nú þegar Drottinn gerer þer, minn Herra! allt þad góda sem hann hefir sagt þer, og boded ad þú skuler vera einn hertoge yfer Israel.

31. Þá skal eigi míns Herra hiarta þetta vera til falls eda forørgunar, ad þú hafer eigi blóde úthellt án sakar, og hiálpad þer siálfum, þá skal Drottinn gera vel mínum Herra, og þá muntu minnast þinnar ambáttar.

32. David sagde til Abigail: lofadur se Drottinn Gud Israels, sá ed sende þig í dag til fundar vid mig,

33. Blessud se þín ræda, og blessud sert þú, ad þú hefir hamlad mer á þessum deige ad úthella blóde, og hefna mín med minne eigenni hende.

34. Sannlega, so víst sem Drottinn Gud Israels lifer, sá sem hepte mig, ad eg gerde þer eigi vondt, hefder þú eigi komed so snart til fundar vid mig, þá hefde Nabal ei hallded epter til morguns einum þeim sem í vegg af ser vatn lætur.

35. Sídann medtók David, af hennar hende, þad sem hún hafde fært hønum, og sagde til hennar: far nú med fride upp til þíns húss, siá! eg hlyddi þinne raustu, og virdte þína persónu.

36. Þegar Abigail kom til Nabals, siá! þá hafde hann reidt til einnrar veitslu, í sínu huse, so sem kongs veitsla være, og hans hiarta var sem kátast hiá siálfum ser, því hann var miøg druckenn. Enn hún sagde hønum ecke, hverke miked ne líted, allt til lioss dags.

37. Enn um morgunenn, sem af hønum lette vínenu, þá sagde hans kvinna hønum þetta allt, þá dó hans hiarta í hans búki, so hann vard sem steinn.

38. Og tíu døgum þar epter sló Drottinn hann, so hann andadest.

39. Enn sem David heyrde ad
Nabal var daudur, sagde hann: lof
adur se Drottinn, sá ed hefnde á
Nabal minnar svivirdingar, og hep-
te siun þenara frá þvi vonda. Og
Drottinn let Nabals vondsku ko-
ma honum í koll. Og David sende
þangad, og let tala vid Abigail, ad
hann villde taka hana til eigenn-
kvinnu.
40. Enn sem Davids þenarar ko-
mu til Abigail, í Carmel, þá tolu-
du þeir vid hana, og sogdu: David
sende oss til þín, ad hann vill fá þín
ser til eigennkvinnu.
41. Hún stód upp, fell framm til
jardar á sitt auglit, og tilbad, og
mællte: siá! her er þín ambátt, ad
hún þióne þenornm míns Herra,
og þvoi fætur þeirra.
42. Og Abigail bió sig skiótt, og
reid á einum asna, og fimm hennar
þiónustumeyar med henne, og fór
epter sendemonnum Davids, og
gerdest husfreya hans.
43. David feck og Ahinoam af
Jesreel, og þær bádar voru hans
eigennkvinnur.
44. Enn Saul gipte Phalti, syne
Lais, af Gallim, sina dottur Mich-
ol, Davids kvinnu.

## 26. Capitule.

1. Þeir af Siph komu til Sauls
í Gibea, og sogdu: mun David eigi
leynast á Hachila hædum, gagn-
vart eydemorku?
2. Þá tók Saul sig upp, og fór
nidur í eydemorku Siph, og þríar
þusunder ungra manna af Israel
med honum, ad leita epter David í
eydemorku Siph.
3. Og hann sette herbúder á Ha-
chila hæd, sem ad liggur gegnt eydi-
morkenne hiá voigenum. Enn Da-
vid var í eydemorkenne. Og er hann
sá, ad Saul kom epter honum í eyd-
emorkena,
4. Utsende hann nióśnarmenn;
hann frette þá, ad Saul var vissule-
ga komenn.
5. Og David tók sig upp, og kom
ad þeim stad sem Saul hellt sínar
herbúder, og sá stadenn sem Saul
lá, og hans hershofdinge, Abner,
sonur Ner, þviSaul lá í Vagnborg,
og strídsfólked í kringum hann,
6. Þá svarade David: og sagde
til Ahimelech Hethita, og til Abi-
sai, sonar ZeruJa, brodur Joab:
hver vill fara med mer ofann ad
herbúdum Sauls? Abisai svarade:
eg vil fara med þer ofann þangad.
7. So kom David og Abisai til
folksins um nóttena. Og siá! Saul
lá og svaf í vagnborgenne, og hans
spiot stód í jordu vid hans hofud,
enn Abner, og fólked lá í kringum
hann.
8. Þá sagde Abisai til Davids:
nú hefir Gud á þessum deige gefed
þinn óvin í þína hond, þvi vil eg
nú leggia í gegnum hann spiotenu
einu sinne nidur í jord, so ad hann
skal eigi þurfa meira.
9. David sagde til Abisai: drep
þú hann eigi, þvi hver vill leggia
hendur á þann smurdaDrottins, og
vera óhegndur?
10. Og enn mællte David, so
sannarlega sem Drottinn lifer, ef
siálfur Drottinn slær hann eigi,
ellegar hans tíme kemur ad hann
skal deya, eda hann dræge í stríd,
og fellur þar,
11. Þá forde Drottinn mer þvi,
ad eg legge mína hond á þann
smurda Drottins. So tak nú spio-
tid þad sem stendur ed hofde hon-
um, og vatnkered, og forum burt.
12. So tók David spioted og
vatnkered, þad sem stód ad hofde
Saul, og geck í burt, og þar var
engenn sem þetta sá, edur yrde var
vid, ne vaknade, helldur sváfu þeir

aller, þviad fastur svefn af Drottni var yfer þá alla fallenn.

13. Og sem David var nú komenn yfer um, á hina sídu, geck hann langt burt, uppá gnypu fiallsins, so ad þar var langt bil á millum þeirra,

14. Og kallade til folksins, og til Abner, sonar Ner, og sagde: heyrer þú eigi Abner? Abner svarade og sagde: hverr ert þú, ad þú hrópar so í mót kongenum?

15. David svarade Abner: ert þú eigi madur? og hver er þinn jafninge í Israel? þvi hefir þú þá eigi geymt þíns Herra kongs? þvi þar geck inn einn af fólkenu ad fordiarfa þinn Herra og konong.

16. Nú hefir þú víst ei vel gert. So sannarlega sem Drottinn lifer, þer erud Daudans børn, ad þer hafed eigi vardveitt ydarn Herra, þann smurda Drottins, siá þu nú, her er kongsins spiót, og þad vatnker sem var hiá hans høfde.

17. Þá þeckte Saul Davids rødd, og sagde; David, minn sonur! er þad eigi þín rødd? David sagde; þad er mín rødd, minn Herra konongur.

18. Og hann talade enn framar: fyrer hvøra skulld offsæker minn Herra so sinn þenara? hvad hefi eg gert, og hvad er vondt í minne hende?

19. So heyre nú minn Herra konongur ord síns þenara, ef Drottinn hvetur þig ímóte mer, þá lát upptendra eitt matoffur, enn ef þad gera manna børn, þá seu þau bølvud fyrer Drottni, ad þeir vilia útreka mig á þessum deige, ad eg má eigi búa í erfd Drottins, og þeir seigia, far burt, og þióna þú ødrum Gudum.

20. So falle nú ei mitt blód á jørd fyrer auglite Drottins. Þviad Israels kongur er útdreigenn, ad leita epter einnre fló, so sem menn ellta riupu á fiøllum.

21. Þá svarade Saul: eg hefe misgert, kom aptur, minn sonur David, hedann í frá vil eg eigi íllt gera þer, af þvi ad nú í dag var mitt líf dyrdlegt í þínum augum, siá! eg hefe gert fávíslega, og miøg óforsiálega.

22. David svarade og sagde: siáed! her er kongsins spiót, fare einhver af sveinunum yfer hingad ad sækia þad.

23. Enn Drottinn mun bitala serhverum epter sinne rettvîse, og sinne trú. Þviad Drottinn gaf þig í dag í mínar hendur, enn eg villde eigi léggia mína hønd á þann smurda Drottins.

24. Og so sem þín sál var mikels verd í dag fyrer mínum augum, so se og mín sál miklud í auglite Drottins, og frelse hann mig af øllum mótgange.

25. Saul sagde til Davids: blessadur sertu minn sonur David, þú munt þad gera, og fullkomna þad. Epter þetta geck David sína leid, enn Saul snere aptur í sinn stad.

## 27. Capitule,

1. Og David hugsade í sínu hiarta: eg fell einhvern dag í hendur Sauls, þer er ecke betra, enn eg flye undann í Phillisteanna land, so ad Saul mætte afláta ad leita mín framar um øll Israels landamerke, so mun eg fordast hans hendur.

2. Og hann tók sig upp, og fór yfer um, med þeim sex hundrudum manna, sem voru hiá honum, til Achis, sonar Maoch, kongsins í Gath

3. So var David í Gath hiá Achis, og hans menn, hver med sínu hyske, David og so, med tveimur sínum kvinnum, Ahinoam, af Jesreel, og Abigail, kvinnu Nabals, af Carmel,

4. Og er Saul frekker þad, ad David hafde flúed í Gath, þá lette hann ad leita eptter honum framar.

5. Og David sagde til Achis: hafe eg funded náð fyrer þínu augliti, þá lát gefa mer rúm í einhverium stadanna í landenu, ad eg meige búa þar, þvi skyllde þión þinn búa hiá þer, í þínum konunglega stad?

6. Þá gaf Achis honum Ziklag, á þeim sama deige. Og þar fyrer er Ziklag Juda kononga stadur, allt til þessa dags.

7. Enn sá tíme sem David bió í lande þeirra Philistinorum, var eitt ár og fiórer mánader.

8. David fór upp med sína menn, og fell inn í land þeirra þióda sem kolludust Gessuritar, og Girsitar, og Amalekitar, þviad þessar þióder hofdu búed í þessum londum í fyrndenne, þar menn koma til Sur, allt ad Egyptalande.

9. Og sem David sló landed, let hann hverke lifa karlmenn ne kvinnur, enn tók saude, uxa, asna, ulfallda, og klæde, og snere so aptur, og kom til Achis.

10. Enn sem Achis þá mællte: hafed þer hverge áhlaup gert í dag? David svarade: sudur á móts vid Juda, og sudur á móte Jerahmeeliter, og sudur á mót Keniter.

11. Og David let hverke karl ne kvinnu lifande koma til Gath, þvi hann hugsade, ske má, ad þeir tala og þvætte um oss. So gerde David, og þad var hans sidvane alla þá stund sem hann bió í lande Philistinorum.

12. Og þvi trúde Achis David, og hugsade, hann hefir gert sig andstyggelegann fyrer sínu fólke Israel, þvi skal hann vera minn þiónustumadur æfinlega.

## 28. Capitule.

1. Þad skede á þeim tíma, ad Philistei drógu saman sinn her, ad heria á móte Israel, og Achis talade vid David: þú skallt vita, ad eg vil, ad þú og þíner menn fare herfor med mer.

2. David svarade Achis: nú vel, þú skallt reyna hvad þinn þenare skal gera. Achis svarade til Davids: eg vil ad þú sert hofudvordur minn alla mína daga.

3. Samuel var daudur, og allur Israels lydur hafde gráted hann, og jardad hann í sinne borg Rama. Saul hafde og úr lande reked spásagnarmenn, og fiolkingis menn.

4. Enn sem Philistearner hofdu safnast tilsamans, og komu og settu herbúder sínar í Sunem, þá samansafnade Saul ollum Israel, og sette herbúder sínar í Gilboa.

5. Enn er Saul sá her Philistinorum, óttadest hann, og hans hiarta vard miog skelft.

6. Og hann geck til umráda vid Drottinn. Enn Drottinn svarade honum engu: hverke í draume, ne fyrer liós, ne helldur fyrer spámenn.

7. Þá sagde Saul til sínna þenara, leited upp fyrer mig þá kvinnu sem hefir spáfarar anda, so eg meige fara til hennar, og adspyria hana. Hans þenarar sogdu til hans: siá! þar er ein kvinna í Endor, hún hefir einn spáfarar anda.

8. Og Saul tók klædaskipte, og skærdest odrum, og geck af stad, og tveir adrer med honum, og kom um nótt til kvinnunnar, og sagde: eg bid þig, spá þú mer fyrer spáfarar anda, og vek mer upp þann sem eg seige þer.

9. Kvinnann svarade honum: siá! þú veist vel, hvad Saul hefir gert, hvernenn hann hefir af lande-

nu upprætt spáſagnar menn, og fiølkingismenn, þvi villtu þá leida mína ſál í snoru, ſo eg hreppe dauda?

10. Saul ſór henne vid Drottinn, og mællte: ſo ſannarlega ſem Drottinn lifer, þig ſkal ecke illt ſke her fyrer.

11. Þá ſvarade kvinnann: hverjum ſkal eg þá koma upp fyrer þig? hann ſvarade: vek upp Samuel fyrer mig.

12. Þá kvinnann ſá nú Samuel, kallade hun hárre røddu, og ſagde til Sauls: þvi hefir þú ſvikid mig? þú ert Saul.

13. Kongurenn ſagde til hennar: eigi ſkalltu óttaſt, hvad ſer þú? kvinnann ſagde til Sauls: eg ſe Gude uppſtíga ur jørdunne.

14. Hann ſagde: hvernenn er hann í hátt? hún anſade, einn gamall madur kemur þar upp, og er klæddur einum ſilkekortle. Þá merkte Saul, ad þad var Samuel, og hneigde ſig á ſína áſiónu til jardar, og badſt fyrer.

15. Enn Samuel ſagde til Saul: þvi hefir þú gert mer únáder, ad þú letſt uppvekia mig her upp? Saul ſvarade: eg em ſtaddur í ſtórre angiſt. Philiſtei heria á mig, og Gud er vikenn frá mer, og vill enga viſſu gera mer, hverke fyrer ſpámenn ne drauma. Þar fyrer let eg kalla þig, ad þú ſyner mer, hvad eg ſkal gera,

16. Samúel ſvarade: þvi ſpyr þú mig, fyrſt ad Drottinn er vikenn frá þer, og ordenn þinn óvinur?

17. Drottinn mun gera þer ſem hann hefir ſagt fyrer mig, og mun ſlíta ríked af þinne hende, og gefa David þínum núunga þad.

18. Sokum þeſs, ad þú varſt óhlydenn røddu Drottins, og fullkomnader eigi grimmd hans reide mót Amalek. Og þvi hefir nú Drottinn gert þer þetta.

19. Þar ad auk mun Drottinn gefa Iſrael med þer í hendur Philiſtinorum, á morgun muntu, og þíner ſyner, vera med mer, og ſo mun Drottinn gefa Iſraels her í Philiſtea hendur.

20. Þá fell Saul til jardar, ſo langur ſem hann var, og vard hardla miøg hræddur, fyrer Samuels ordum, ſo ad hann vard máttlaus, þvi hann hafde eigi matar neytt allann þann dag, og alla þá nótt.

21. Og kvinnann geck inn til Sauls, og ſá, ad hann var miøg hræddur, og hún ſagde til hans: ſiá þú! þín ambátt hlydde þinne røddu, og eg lagde mitt líf í hættu, og hlydde þínum ordum, ſem þú ſagder mer.

22. So hlyd þú nú og einnenn rauſt ambáttar þinnar, eg vil ſetia fyrer þig munnbita brauds, ad þú meiger eta og ſtirkiaſt, ſo ad þú meiger fara þinn veg.

23. Hann neitade og ſagde: eg vil eigi eta. Þá neyddu hans þenarar, og kvinnann, hann til, ſo hann hlydde þeirra rauſtum. Og hann ſtód upp af jørdunne, og ſette ſig á ſængena.

24. Kvinnann átte einn alenn kálf í ſinu húſe, hún fór ſem ſnaraſt, og let ſlátra hønum. Og hún tók miøl, hnodade, og bakade óſyrt (braud).

25. Og bar framm fyrer Saul og hans þenara. Og ſem þeir høfdu eted, ſtódu þeir upp, og geingu um þá nótt.

## 29. Capitule.

1. Og Philiſtei ſamanſøfnudu øllum ſínum her í Aphek, og Iſraels lydur ſette herbúder ſinar í Ain, í Jeſreel.

2. Og høfdingiar Philiſtinorum gengu framm, hundrudum ſam=

ann, og þusundum samann. Enn Dávid, og hans menn gengu bak epter med Achis.

3. Þá søgdu høfdingiar Philistinorum, hvad skulu þesser Hebrei? Achis svarade til þeirra: er þad eigi David, þenare Sauls, Israels kongs, hver ad nú hefir verid hiá mer ár og dag, med hverium eg hefe ecke funded, sídann þá tíd hann fell frá, og hingad til?

4. Enn Philistea høfdingiar urdu hønum reider, og søgdu til hans: lát þú þann mann snúa aptur, og se hann kirr í þeim stad sem þu hefir skipad hønum, og lát hann eigi fara nidur med oss til bardaga, ad ei snúest hann þá í móte oss, í orustunne. Þvi hvar med kann hann betur ad gera til þocknunar sínum Herra, enn med høfdum þessara manna?

5. Er hann eigi sá David, um hvern ad kveded var í dansenum; Saul fellde þusund, enn David tíu þusunder?

6. Þá kallade Achis David fyrer sig, og sagde til hans: so sannarlega sem Drottinn lífer, eg helld þig ein heidarlegann mann, og þinn inngangur og útgangur med mer í hernum líkar mer, og enga hreckvíse hefi eg funded med þer, frá þvi fyrst á þu komst til mín, og allt til þessa, enn ei þocknast þú høfdingiunum.

7. Þar fyrer snú aptur, og far burt í fride, so ad þu eigi styggeŕ augu høfdingia Philistinorum.

8. Þá sagde David til Achis: hvad hefi eg adhafst, eda hvad hefir þú funded med þínum þenara, frá þeim tíma eg kom til þín, og inn til þessa, ad eg skylde eigi meiga fara, og beriast í móte míns Herra kongsins óvinum?

9. Achis svarade, og sagde til Davids: eg veit þad vel, þviad vel þocknast þú fyrer mínu auglite, so sem Guds eingell, Enn þeir høfdingiar Philisteanna søgdu: lát hann eigi fara upp med oss í þennann bardaga.

10. So tak þig upp á morgun árla, og þenarar þíns Herra, sem komu med þer, og sem þeir eru búner á morgun, þá ad lyser, þá fared af stad.

11. So stód David, og hans menn, árla upp, og ferdudust um morgunenn af stad, og komu aptur í land Philistinorum. Enn Philistei ferdudust upp til Jesreel.

## 30. Capitule.

1. Nú sem David kom á þrídia deige med sína menn til Ziklag, þá høfdu þeir Amalekitar áhlaup gert til Suðurs, og til Ziklag, og høfdu sleiged Ziklag, og uppbrennt hana med ellde,

2. Þær kvinnur sem þar voru tóku þeir ad herfánge med ser, bæde smærre og stærre. Enn engann mann høfdu þeir íhel sleiged, helldur burt reked, og voru þá farner sinn veg.

3. Enn sem David kom ad stadnum med sína sveit, og sá, ad hann var uppbrenndur med ellde, og ad þeirra eigenkvinnur, syner, og dætur voru hertekuar,

4. Þá upphóf David, og þad folk sem med hønum var, þeirra raust, og gretu so lenge, ad þeir gátu eigi lengur grátid.

5. Þviad tvær kvinnur Davids voru og hertekuar, sem var Ahinoam af Jesreel, og Abigail, Nabals kvinna, af Carmel.

6. Og David var miøg hryggur, þviad fólked villde grýta hann. Þviad sáler alls folksins voru med beiskum huga, hver vegna sínna sona og dætra. Enn David styrktest í Drottne sínum Gude,

7. Og sagde til AbJathar kennemanns, sonar Achimelechs: fær mer hingad líſkyrtelinn. Og ſem AbJathar hafde fært líſkyrtelinn til Davids.

8. Þá ſpurde David Drottinn, og ſagde: ſkal eg fara epter þeſſum ſtríds mønnum, og mun eg ná þeim? hann ſagde: far epter þeim, þú munt og ná þeim, og gera frelsan.

9. Síðann fór David af ſtad med ſex hundrud menn, ſem med hønum voru. Enn ſem þeir komu ad þeim læk Beſor, þá ſtølldrudu þar nockrer epter.

10. Enn David, med þeim fiórum hundrudum manns, veittu epterfør, enn tvo hundrud manns, ſem epter ſtølldrudu, voru ofþreytter ad ganga yfer læk-nn Beſor.

11. Og þeir fundu einn Egyptſkann mann á mørkenne, hann leiddu þeir til Davids, og gáfu hønum braud ad eta, og vatn ad drecka,

12. So og gáfu þeir hønum eina kló af fíkum, og tvær klær med ruſinum. Enn ſem hann hafde eted, kom hans ande til hans aptur, þvi hann hafde eigi eted í þría daga, og þríar nætur, og eigi á vatne bergt.

13. Þá ſagde David til hans: hverr ert þú, og hvadann ert þú? hann ſvarade: eg em einn Egyptſkur ſveinn, og þenare eins Amalekita, enn minn Herra let mig epter, þviad eg ſyktest nú fyrer þremur døgum.

14. Ver fellum her inn, ſunnann ad Crethi, og í mót Juda, og ſunnann ad Caleb, og uppbrenndum Ziklag med elldе.

15. David ſagde til hans: villt þú fylgia mer ofann til þeſſa ſtríds folks? hann ſvarade: ſver þú mer þá vid Gud, ad þú villt hverke drepa mig, og eige hélldur frammſelia mig í hendur míns Herra, þá vil eg fylgia þer nidur, til þeſſa ſtríds folks.

16. Og hann fylgde þeim nidur, og ſiá, þeir dreifduſt um alla jordena, átu og drucku, og hélldu hátíd, yfer øllu þvi mikla herfánge, ſem þeir høfdu teked af Philiſteum, og Juda lande.

17. Og David ſló þá frá morgne, og inn til kvøllds, á móte ødrum deige, ſo ad engenn komſt undann af þeim, utann fiøgur hundrud ſmá dreingia, ſem ridu ulfølldum og flydu.

18. So frelſade David aptur allt þad ſem Amalekitar høfdu rænt, og ſínar tvær kvinnur.

19. Og þar vantade eigi neitt, hverke miked ne líted, hverke ſon ne dotter, og eigi neitt herfáng, edur af øllu þvi ſem þeir høfdu teked, David færde þad alltſamann aptur.

20. Líka vel tók David ſaude og naut, og þeir raku þad undann ſer, og þeir ſøgdu: þetta er herfáng Davids.

21. Nú ſem David kom til þeirra tvø hundrud manna, ſem høfdu orded mædder ad fylgia David, og urdu epter hiá læknum Beſor, gengu þeir út á móte David, og á móte þvi fólke ſem var med hønum. David geck til folkſins, og heilſade þvi vinſamlega.

22. Þá ſvørudu þeir ſem iller voru og lauſingiar, á medal þeirra manna ſem fared høfdu med David, og ſøgdu. Søkum þeſs, ad þeir fóru eigi med oſs, þá ſkal þeim ecke gefaſt af þvi herfánge ſem ver høfum frelſad, utann hver take ſína kvinnu og børn, og gange ſo burt hedann.

23. Þá ſvarade David; eigi ſkulud þer ſo gera, míner brædur, vid

þad sem Drottinn hefir gefed oss, og hefir verndad oss, og gaf þessa strídsmenn í vorar hendur, þá sem hingad komu imóte oss.

24. Hver vill hlyda ydur í þessu? líka sem þeirra partur er sem nidurfóru til strídssins med oss, so skal og þeirra partur vera, sem epter voru hiá því sem ver áttum, og skal ad jafnade skiptast.

25. Þad er frá þeim tíma, og þar epter, ordinn einn sidvane og rettur í Israel, allt til þessa dags.

26. Enn sem David kom í Ziklag, sende hann af herfángenu þeim elldungum í Juda, og sínum vinum, og sagde: siá! þar hafed þer blessan af herfánge óvina Drottins.

27. Sem ad er, þeim í BethEl, þeim í Ramoth mót Sudre, þeim í Jathir,

28. Þeim í Aroer, þeim í Siphamoth, þeim í Esthemoa,

29. Þeim í Rachal, þeim í Jerahmeeliter stødum, þeim í Keniternis stødum,

30. Þeim í Harma, þeim í Bor Asan, þeim í Atach,

31. Þeim í Hebron, og í alla stade, þar sem David hafde vered med sínum mønnum.

## 31. Capitule.

1. Philistei helldu bardaga vid Israel, og Israels menn flydu fyrer Philisteum, fellu, og voru slegner á fiøllum Gilboa.

2. Og Philistei soktu sem ákafast ad Saul og hans sonum, og slóu Jonathan, og Abinadab, Malchisua, syne Sauls.

3. Herdtest þá bardagenn uppá Saul, og bogmenner skutu fastlega á hann, med bogum, so ad stór sár bárust á hann af skyttunum.

4. Þá sagde Saul til síns skiallds-sveins, breg þínu sverde, og legg mig í gegnum þar med, so ad þesser óumskornu kome eigi ad drepa mig, og gere spott ad mer. Enn hans skiallds-sveinn villde eigi, því hann óttadest miøg. Þá tók Saul sverdid, og let fallast þar á.

5. Enn sem hans skiallds-sveinn sá, ad Saul var daudur, fell hann og so á sitt sverd, og dó med hønum.

6. So let Saul líf sitt, og hans þrír syner, og so hans skiallds-sveinn, og so líka aller hans menn á þeim sama deige.

7. Enn sem Israels menn, sem voru hinumeigenn dalsins, og hinumeigenn Jordanar, sáu flóttann Israels manna, og ad Saul og hans syner voru fallner, yfergáfu þeir borgernar, og flúdu og so, enn Philistei komu og binggu í þeim.

8. Ad ødrum deige komu Philistei ad klædfletta þá slegnu, og þeir fundu Saul, og hans þría syne, liggiande á fiallenu Gilboa.

9. Og þeir hiuggu høfuded af Saul, og tóku hans herklæde af hønum, og sendu þau um land Philistinorum, og letu lysa þessu í þeirra afguda húsum, og so fyrer fólkenu.

10. Hans harnesk iu festu þeir upp í hofe Astharoths, enn hans líkama festu þeir á múrveggenn í Bethsan.

11. Þá þeir í Jabes í Gilead heyrdu þad, hvad Philistei høfdu gert vid Saul.

12. Tóku þeir sig upp sem voru vel víger, og gengu alla þá nótt, og tóku Saul og hans sona líkame af múrnum í Bethsan, og færdu þá til Jabes, og brenndu reykelse yfer þeim þar.

13. Og þeir toku þeirra bein, og jordudu þau under trenu í Jabes, og fostudu í siø daga.

Ender þeirrar fyrstu bókar Samuelis.

# Aunnur Bok Samuelis.

## 1. Capitule.

1. Þá Saul var daudur, og David var aptur komenn frá slage þeirra Amalekita, og hafde vered tvo daga í Ziklag.

2. Siá! þá kom þar, á þridia deige, einn madur af her Sauls, med rifnum klædum, og molldu yfer sínu høfde. Og sem hann kom fyrer David, fell hann til jardar, og tilbad.

3. David sagde til hans: hvadann komst þú? hann svarade: eg komst undann af Ísraels her.

4. David sagde til hans: seig mer, hvernenn gengur þad til? hann svarade: fólked flude ur bardaga, og fell fiollde folks, þar til er Saul daudur, og hans sonur Jonathan.

5. David sagde til þessa unga manns, sem hønum bar tídendenn, hvernenn veitstu þad, ad Saul, og hans sonur Jonathan, eru dauder?

6. Sá unge madur, sem hønum bar tídendenn, svarade: eg kom óforvarandis uppá fialled Gilboa, og siá! Saul studdest vid sitt spiot, enn vagnarner og riddaralided var komed so nær epter hønum.

7. Og hann snerist vid, og sá mig, og kallade á mig, og eg svarade: her em eg.

8. Og hann sagde til mín: hver ert þú? eg svarade hønum: eg em einn Amalekite,

9. Og hann sagde til mín: far hingad til mín og slá mig íhel, þviad þreyngsl spenna mig allumeigenn, enn allt líf mitt er enn í mer.

10. Þá geck eg ad hønum, og sló hann íhel, þvi eg visse vel, ad hann mátte eigi lifa epter hans fall. Og eg tók koronuna af hans høfde, og bringenn af hans arme, og hafde eg þetta hingad til þín, minn Herra.

11. Þá hreif David sín klæde, og sleit þau, og aller þeir menn sem voru hiá hønum.

12. Og sørgudu og gretu, og føstudu til Aptans, yfer Saul, og hans syni Jonathan, og yfer Drottins fólke, o, yfer Ísraels húse, ad þeir høfdu falled fyrer sverde.

13. Og David sagde til þess unga manns, sem hønum undervíssade þetta: hvadann ert þú? hann svarade: eg em eins útlends manns sonur, sem er Amalekite.

14. David sagde til hans: þvi varstu so diarfur ad þu þorder ad leggia þínar hendur á þann smurda Drottins, og lífláta hann?

15. Og David sagde til eins af sínum sveinum: kom hingad og slá hann. Og hann sló hann íhel.

16. Þá sagde David til hans: þitt blód vere yfer þínu høfde, þvi þinn munnur talade í gegn þer sialfum, og sagde: eg hefe íhel sleiged þann smurda Drottins.

17. Og David klagade þennann harma grát, yfer Saul, og hans syne Jonathan.

18. Og baud ad kenna børnum Juda þennann boga: siá! þad stendur skrifad í bók þeirra frómu.

19. Þeir enu ágiætustu í Ísrael eru sleguer á þínum hædum, hvernenn eru kapparner faller?

20. Láted þad eigi spyriast í Gath, og kunngered þad eigi á strætunum í Askon, so ad dætur Philistinorum gledie sig eigi, og ad dætur þeirra óumskornu hafe eigi fagnad (þar af).

21. Per Gilboa fioll, kome hverske døgg ne regn yfer ydur, og ei seu þar akrar, af hverum upphafningar offur kome, þviad þar voru skylder kappanna afslegner, skiolldur Sauls, so sem ad hefde hann eigi vered smurdur med vidsmiøre.

22. Jonathans boge skaut alldrei á miss, og sverd Sauls kom alldrei aptur án blóds þeirra í hel slegnu, og án feite kappanna.

23. Saul og Jonathan voru ástudleger og elskuleger í lífenu, þeir skildust og eigi ad í daudanum, þeir voru lettfærare enn Erner, og sterkare enn Leon.

24. Per Israels dætur, syrged Saul, sem klædde ydur prydelega med rósalit, og prydde ydur med gyllene klenodium á ydrum klædum.

25. Med hverum hætte eru kapparner so fallner í bardaga? Jonathan er sleigenn á þínum hædum.

26. Syrge eg þig, minn broder Jonathan: eg hefe haft stóra glede og unadarsemd af þer, þinn kærleike var mer stærre enn kvenna kærleike.

27. Med hverum hætte eru kapparner fallner, og þeir hraustu hermenn fyrerkomner?

## 2. Capitule.

1. Enn sem þetta var nú skéd, spurde David Drottinn ad, og sagde: skal eg fara upp til einhverrar borgar í Juda? og Drottinn sagde til hans: far upp þangad. David sagde: hvert þá? hann svarade, til Hebron:

2. So fór David þangad, med sínum tveimur koinnum, Ahinoam af Jesreel, og med Abigail, Nabals kvinnu, af Carmel,

3. Þar med hafde og David upp med ser þá menn sem voru hiá honum, hvern med sínu hyske, og þeir settust í Hebron borger.

4. Og menn af Juda komu þangad, smurdu David þar til kongs, yfer hús Juda. Nú sem David spurde: ad þeir af Jabes í Gilead høfdu jardad Saul,

5. Þá sende hann þeim bod, og let seigia þeim: blessader seud þer af Drottni, ad þer gerdud soddann miskunar verk á Saul ydrum Herra, ad þer jørdudud hann.

6. So veite ydur nú Drottinn miskun og trú. Og eg vil vera ydur til góda, fyrer þad þer gerdud þetta.

7. Stirkest nú ydar hendur, og vered þer sialfer hughrauster, þvi þó ydar Herra Saul se daudur, þá hefir húsed Juda smurt mig til kongs yfer sig.

8. Enn Abner, sonur Ner, sem var hershøfdinge Saul, hann tók Isboseth, son Sauls, og færde hann til Mahanaim,

9. Og tók hann til kongs yfer Gilead, Assuri, Jesreel, Ephraim, Benjamin, og yfer allann Israel.

10. Og Isboseth, sonur Saul, var fiørutíu ára gamall, þá hann tók kongdom yfer Israel, og ríkte í tvø ár. Enn Juda hús hellt med David,

11. Og sá tíme sem David var kongur í Hebron, yfer hús Juda, var siø ár og sex mánuder.

12. Og Abner, sonur Ner, fór út med sveina Isboseth, sonar Sauls, af hernum í Gibeon.

13. Og Joab, sonur Zeru Ja, fór út med Davids þenurum, og þeir mættust hiá Gibeon fiskevatne, og þeir settu sig sínumeigenn fiske vatn sins hverer.

14. Og Abner sagde til Joab: láted sveinana standa upp, og leika fyrer oss. Joab sagde: þad má vel.

15. Þá stódu þer upp og gengu framm, tolf ad tølu af Benjamin, af parti Isboseth, sonar Sauls, og tolf af Davids þenurum.

16. Og hver greip hendi í annars høfud, og lagde sínu sverde í hans sídu, og þeir fellu so báder, þar af kallast sá stadur Helkath Hazurim, sem er í Gibeon.

17. Og þar hófst, á þeim sama deige, hin snarpasta orusta, enn Abner og Israels menn urdu slegner fyrer Davids þenurum.

18. Þar voru þrír af ZeruJa sonum, Joab, Abisai, og Asahel. Enn Asahel var so skiotur á fæte sem eitt hreindyr á mørku.

19. Og hann rann epter Abner, og veik hverke til hægre ne vinstre handar frá Abner.

20. Þá snere Abner sier vid, og sagde: ert þú Asahel? hann sagde: já!

21. Abner sagde til hans: vík þú þer út af, annad hvert til hægre edur vinstre handar, og høndla einn af þeim ungum mønnum, og tak hans herklæde frá hønum. Enn Asahel villde eigi víkia frá hønum.

22. Þá sagde Abner enn framar til Asahel: vík frá mer, þvi villt þú ad eg skule slá þig til jardar, og hvernenn skyllde eg sídann þora ad upplypta mínu andlite fyrer þínum broder Joab?

23. Enn hann villde eigi víkia frá hønum. Þá lagde Abner hann á bak aptur med einu spiote í kvideunn, so ad óddurenn geck út til baka, og hann fell þar, og let lífed fyrer hønum. Og hver sem kom ad þeim stad, þar Asahel var daudur, sá nam (þar) stadar.

24. Enn Joab og Abisai sóktu epter Abner, allt til solar falls. Og sem þeir komu á hæd Amma, sem liggur hiá Giah, á veigenum, sem liggur til Gibeon Audnar,

25. Þá sofnudust samann børn Benjamins epter Abner, og urdu flockorn, og stódu efst á hæd nockurs haugs,

26. Þá kallade Abner til Joabs, og sagde: skal þá sverded án áláts uppeta? veitst þú eigi, ad her epter má koma meire eymd? hversu lenge villt þú tefia ad seigia til folksins: ad þeir láte af ad ofsækia þeirra brædur?

27 Joab svarade: so sannarlega sem Gud lifer, hefder þú eigi talad so, þá hefde fólked láted af snemma í dag ad ellta sína brædur.

28. Þá bles Joab í basunur, og stødvadest þegar allur lydur, og ellte eigi meir Israel, og bardest eigi helldur leingur.

29. Enn Abner og hans menn gengu alla þá nótt yfer þad slettlende, og gengu yfer Jordan, og ferdudust í gegnum allt Bitron, og komu í herbúdernar.

30. Joab snere sier frá Abner, og samansafnade øllu fólkenu. Og þar vantade nítian menn af Davids þenørum, og Asahel.

31. Enn Davids þenarar høfdu slleged af Benjamin og mønnum Abner, so ad þrín hundrud og sextíu manns voru dauder.

32. Asahel tóku þeir upp, og jørdudu hann í síns fødurs grøf í Bethlehem. Enn Joab og hans menn gengu alla þá nótt, so ad þeir komu í døgun til Hebron.

## 3. Capitule.

1. Og þar var langt stríd imillum Sauls húss og Davids húss. Enn David fór, og var vagsande, enn húss Sauls fór, og var hnignande.

2. Og David átte børn í Hebron, hans frumgetenn sonur var Ammon af Ahinoam af Jesreel.

3. Annar var Chiliab, af Abigail, kvinnu Nabals af Carmel. Enn þríde var Absalon, sonur Maacha, dottur kongs Thamai af Gesur.

4. Sá fiorde Adonia, sonur Hagliths. Sá fimmte, SaphatIa, sonur Abital.

5. Sá siøtte, Jethream, af Egla Davids kvinnu. Þesser eru David fædder í Hebron.

6. Sem þesse ófridur var á mille Sauls húss, þá styrkte Abner húss Sauls.

7. Saul hafde átt eina frillu, hún het Rizpa, dotter Aia. Og Isboseth sagde til Abner: þvi sefur þú med míns fødurs frillu?

8. Þessum ordum Isboseth reiddest Abner miøg, og svarade: er eg þá eitt hunds høfud, ad eg gere miskunar verk á húse Sauls þíns fødurs, og á hans brædrum, og náungum, ímót Juda? og eg sellde þig eigi í Davids hendur. Og þú avítar mig í dag, søkum einnrar kvinnu

9. Gud gere Abner þad og þad, ef eg gere eigi þad sem Drottinn sór David.

10. Ad kongs ríked skal takast frá húse Sauls, enn Davids hásæte skal upphefiast yfer Israel og Juda, frá Dan, og allt til BerSeba.

11. Þá gat hann eigi svarad hønum einu orde framar, so hrædd-ur vard hann fyrer hønum.

12. Og Abner sende bod til Davids undann ser, og let seigia hønum: hverium heyrer landed til? og hann sagde: ger eitt sáttmál vid mig, siá! mín hønd skal vera med þer, so ad eg vil snúa øllum Israel til þín.

13. Hann sagde: nú vel, eg vil binda eitt sáttmál vid þig. Enn eins beidunst eg af þer, ad þú siáer eigi mitt andlit, utann þú færer mer Michol, dottur Sauls ádur, nær þú kemur ad siá mitt andlit.

14. David sende og einnenn bod til Isboseth, sonar Sauls, og let seigia hønum: lát mig fá mína kvinnu Michol, hveria eg fastnade mer med hundrad yferhudum Philistinorum.

15. Isboseth sende af stad, og let taka hana frá sínum manne Paltiel, syne Lais.

16. Og hennar madur geck med henne, og gret bak epter henne, allt til Bahurim. Þá sagde Abner til hans: snú þer, og hverf aptur, og hann hvarf aptur.

17. Og Abner talade vid þá ellstu af Israel, og sagde: þer hafed fyrer lanngu stundad epter David, ad hann skyllde verda kongur yfer ydur.

18. Þá gered þad nú, þviad Drottinn hefer sagt til Davids: eg vil frelsa Israel mitt folk, fyrer hønd Davids míns þenara, af hende Philistinorum, og af allra þeirra óvina høndum.

19. Slíkt hid sama talade Abner og fyrer eyrum Benjamin. Og hann geck og so burt, til ad tala fyrer Davids eyrum, í Hebron, allt þad sem Israel, og allt Benjamins hús villde vera láta.

20. Enn sem Abner kom nú til Davids í Hebron, og tuttugu menn med hønum, þá gerde David þeim eitt gestabod.

21. Og Abner sagde til Davids: eg mun taka mig upp, og fara ad samansafna øllum Israel, til míns Herra kongsins, ad þeir seme sáttmál vid þig, uppá þad, ad þú sert kongur, so sem sál þín gyrnest. Sídann let David Abner frá ser, ad hann fór burt med fride.

22. Og siá, ad Davids þenarar, og Joab, komu frá strídsfólkenu, og fluttu med ser miked herfáng. Enn Abner var þá eigi hiá David í Hebron, helldur hafde hann láted hann frá ser, so hann hafde skiled vid kongenn med fride.

23. Enn sem Joab kom nú, og allur herinn med hønum, þá var hønum undervísad, ad Abner, sonur Ner, hafde komed til kongsins, og hann hafde láted hann fara frá ser, so ad hann var af stad farenn med fride.

24. Þá gek Joab inn fyrer kong-inn, og sagde: hvad hefir þu gert? siá! Abner er komenn til þín, hvar fyrer letstu hann komast frá þer, so hann er í burtu gengenn?

25. Eda þecker þu eigi Abner, son Ners? þviad til þess er hann komenn, ad hann vill svíkia þig, og vill vita þinn útgang og inngang, og rannsaka allt hvad þu gerer.

26. Enn sem Joab geck ut frá David, þá sende hann bod epter Abner, ad þeir skylldu sækia hann aptur frá BorHasira: enn af þessu visse eigi David.

27. Enn sem Abner kom nú aptur til Hebron, þá leidde Joab hann midt í borgarhlided, ad hann villde nockud heimuglegt tala vid hann, og stack hann þar í kvidenn, og hann deyde, vegna Asahels blóds, sem var broder Joabs.

28. Sem David feck þad ad vita epterá, þá sagde hann: eg em saklaus, og mitt kongsríke, fyrer Drottne eylíflega, af blóde Abners, sonar Ners.

29. Enn kome þad yfer høfud Joabs, og yfer allt hans fødurs hus, so ad alldrei linne í Joabs huse, ad þar se eigi nockur sar og likþrár, og vid staf gangande, og fyrer sverde fallande, og brauds þurfande.

30. So sló Joab og hans broder Abisai Abner íhel, þar fyrer, ad hann hafde ádur sleiged Asahel, þeirra brodur, til Dauda, í þeim bardaga hiá Gibeon.

31. Enn David sagde til Joab, og til allra þeirra manna sem med hønum voru: ríted ydar klædi í sundur, og gyrdest seckium, og syrged Abner. Og kongurenn geck epter líkbørunum.

32 Enn sem þeir jördudu Abners í Hebron, þá upphóf kongurenn sína raustu, og gret vid grøf Abners, og allt fólked gret einnenn.

33. Og kongurenn klagade epter Abner, og sagde: eigi dó Abner so sem einn dáre deyr.

34. Þínar hendur eru eigi bundnar, þíner fætur eru eigi siotrum læster; þu fellst so sem einn madur fellur fyrer vondum skalkum. Og allt fólked gret hann þá enn meir.

35. Og sem allt fólked kom inn ad eta med David, og þad var enn um middags skeid, þa sór David, og sagde: Gud láte mig ske þad og þad, ef eg smacka braud, eda nockud annad, fyrr enn sól er undergengenn.

36. Og allt fólked merkte þetta, og þeim þocknadest vel allt þad gott sem kongurenn gerde, fyrer alls fólksins augum.

37. Og allt fólked, og allur Israel merkte á þeim deige, ad þad var ei sked med kongsins vilia, ad Abner, sonur Ners, var sleigenn íhel.

38. Og kongurenn sagde til sinna þenara: vited þer eigi, ad í dag er fallenn einn høfdinge og hinn meste madur í Israel?

39. Enn eg em ennu veikur og smurdur kongur, enn þeir menn, Zeru Ja børn, eru mer harder í Horn ad taka, Drottinn endurgiallde þeim sem illt gera, epter þeirra illsku.

## 4. Capitule.

1. Nú sem sonur Sauls heyrde, ad Abner var daudur í Hebron, þá fellust hønum hendur, og allur Israel feck skelfing.

2. Enn sonur Sauls hafde tvo høfudsmenn fyrer sínu herfólke, sá eine het Baena, enn annar Rechob, þeir voru syner Rimon Berothiter, af børnum Benjamin, þviad Beroth var reiknadur á medal Benjamin,

3. Og þeir Berothitar voru flúner til Gethaim, og biuggu þar sem útlender, allt til þessa dags.

4. Jonathan, sonur Sauls, átte einn son, hann var fótlama, og var hann fimm ára gamall þá þau tídende komu um Saul og Jonathan, af Jesreel, og hans fósturmoder tók hann, og flyde, og sem hún flundade í flóttanum, þá fell hann, og vard halltur, og hann het MephiBoseth.

5. So gengu nú þeir syner Rimon Berothiter, Rechob og Baena í burt, og komu til húsa Isboseth, þá dagur var sem heitastur, og hann lá í sinne sæng um midiann dag.

6. Og þeir komu í húsed ad sækia hveite, og þeir løgdu hann í kvidinn, og flydu í burt.

7. Þvi á þessum tíma, sem þeir komu í húsed, lá hann í sinne sæng, í sínu svefnhúse, og þeir stungu hann íhel, og hiuggu af hønum høfuded. Og þeir tóku hans høfud, og gengu burt uppá veigenn, uppá þá slettu mørk alla þá nótt.

8. Og báru høfud Isboseths til Davids, í Hebron. Og søgdu til kongsins: siá! her er høfud Isboseths, sonar Sauls, þíns óvinar, hver ed sat um þitt líf. Drottinn hefir á þessum deige hefnt míns Herra kongsins á Saul, og hans sæde.

9. Þá svarade David þeim: so sannarlega sem Drottinn lifer, sá frelsad hefir mína sál af allre angist.

10. Eg greip þann sem kunngerde mer, og sagde: Saul er daudur, og hann ætlade ad hann munde hafa bored mer góð tídende, enn eg sló hann íhel í Ziklag, þeim eg skyllde hafa gefed laun fyrer sínar frettir.

11. Enn þesser ógudleger menn hafa myrdt og sleiged rettlátann mann í hans húse, á sinne sæng, já! skyllda eg eigi krefia þvilíks blóðs af ydrum hondum, og burt taka ydur af jørdunne?

12. Og David baud sínum þenurum; þeir aflífudu þá, og hiuggu af þeim bæde hendur og fætur, og heingdu þá upp hiá fiskevatnenu í Hebron. Enn høfud Isboseth tóku þeir, og jørdudu þad í grøf Abners, í Hebron.

## 5. Capitule.

1. Og aller Israels kinþætter komu til fundar vid David, í Hebron, og søgdu: siá þú! ver erum þín bein, og þitt holld.

2. Þar med og fyrrum, þá Saul var kongur yfer oss, þá færder þú Israel út og inn. So hefir og Drottinn sagt til þín: þú skallt geyma mitt folk Israel, og vera hertoge yfer Israel.

3. Og allet ølldungar, og aller þeir hinir ellstu af Israel, komu til kongsins í Hebron. Og kongurinn David gerde eitt sáttmál vid þá fyrer Drottni, í Hebron, og þeir smurdu David til kongs yfer Israel.

4. David var þriátíu ára gamall þá hann tók kongdom, og hann ríkte í fiorutíu ár.

5. Hann ríkte siø ár og sex mánude í Hebron, yfer Juda; enn í Jerusalem ríkte hann þretkann ár og tuttugu, yfer aullum Israel og Juda.

6. Og kongurenn fór til Jerusalem med sína menn, á móte þeim Jebusitum, sem biuggu í landenu. Enn þeir søgdu til Davids: eige

skalltu koma her inn, helldur munu
þeir blindu og hølltu reka þig burt
hier frá (enn það meintu þeir) að
David skyllde eigi koma þar inn.
7. Enn David yfervann kastal-
ann Sion, það er Davids borg.
8. Og David sagde á þeim sama
deige: hver sem slær þá Jebusita, og
getur náð rakrennunum, og þeim
hölltu og blindu, hvera Davids
önd hatar, hann skal vera høfud og
høfdinge, og því er það máltæke:
lát hverke blinda, ne hallta, koma
í húsed.
9. Og David bió í kastalanum,
og kallade það Davids borg. Og
David bygde þar alla vega í kring,
frá Millo, og so þar innann til.
10. Og David geck framm, og
efldest. Og Drottinn Gud Zeba-
oth var med hønum.
11. Og Hiram, kongur af Tyro,
sende bod til Davids, og Cedrus
tre til veggia, og tresmide, og stein-
høggara, ad þeir skylldu bygga Da-
vid eitt hus.
12. Og David merkte, ad Drott-
inn hafde stadfest hann til kongs
yfer Israel, og hafde upphafed hans
kongsrike, fyrer hans folks Israelis
skulld.
13. Og David tók enn fleyre
kvinnur, og frillur, í Jerusalem,
sídann hann var komenn frá He-
bron, so hønum urdu enn fleyre
syner og dætur fæddar.
14. Og þetta eru þeirra nøfn,
sem hønum fæddust í Jerusalem,
Samua, Sobab, Nathan, Salo-
mon,
15. Jebehar, Elisua, Nepheg,
Japhia,
16. Elisama, Eliada, Eliphalet.
17. Enn er Philistei heyrdu það,
ad David var smurdur til kongs
yfer Israel, þá fóru þeir aller upp
ad leita ad David. Enn sem David
fornam það, þá fór hann, og dró
ofann í eitt sterkt víge.
18. Enn Philistei komu og løgdu
sig nidur í dalnum Rephaim,
19. Þá spurde David Drottinn
ad, og sagde: skal eg fara upp ímót
þeim Philisteis? og villt þú gefa þá
í mínar hendur? enn Drottinn sva-
rade David: far þú upp þangad, eg
vil gefa Philisteos í þínar hendur.
20. Og David kom til Baal Pra-
zim, og sló þá þar, og sagde: Drott-
inn sundurtvístrade mínum óvin-
um fyrer mer, so sem þá vøtn skil-
ast hvert frá ødru. Þar af kalla
menn þann sama stad Baal Prazim.
21. Og sína afgude skilldu þeir
þar epter, enn David og hans menn
tóku þá upp.
22. Og Philistei fóru upp aptur,
og løgdu sig nidur í dalinn Rep-
haim.
23. Og David spurde Drottinn ad.
Hann sagde: eigi skalltu nú fara
upp, helldur kom þú á bak vid þá,
so þú komer til þeirra, þvert yfer
frá því Morbertrenu.
24. Og þá þú heyrer þyt í Mor-
bervidar toppunum, þá fall þú (yfer
þá) þviad Drottinn er þá útgeng-
inn fyrer þer, ad slá her þeirra Phi-
listinorum.
25. David gerde so sem Drott-
inn hafde boded hønum, og sló Phi-
listeos, frá Geba, og þar til ad kom-
ed er til Gaser.

## 6. Capitule.

1. Og David samansafnade apt-
ur ad nyu øllum ungum mønnum
í Israel, þriátíu þusundum,
2. Og tók sig upp, og fór med
allt það folk sem var hiá hønum, af
Juda borgum, ad flytia Guds ørk
upp þadann, hverrar nafn heiter,
Drottins Zebaoths nafn byr þar á
yfer Cherubim.

3. Og þeir letu flytia Guds ørk
á einum nyum vagne, og tóku hana
af Abinadabs húse, sem bió í Gibea.
Enn Usa og Ahio, syner Abinadab,
óku þeim nya vagne.
4. Og sem þeir óku út med Guds
ørk af huse Abinadabs, sem bió í
Gibea, og Ahio geck fyrer ørkenne.
5. Þá lek David, og allt Israels
hús, fyrer Drottni, med allra hand-
da hliodfærum, sem af furu vo-
ru gerd, med hørpum, psalterum,
trumbum, og biollum, og cimbal-
um.
6. Og þá þeir komu til þeirrar
hlødu Nachon, þá greip Usa til, og
hellt Guds ørk, þviad uxarner gen-
gu af veigenum.
7. Þá gramdest reide Drottins
yfer Usa, so ad Gud sló hann þar
nidur, søkum hans ofdirfdar, so ad
hann dó þar hiá Guds ørk.
8. Þá vard David hriggur, søk-
um þess, ad Drottinn gerde sodd-
ann skard á Usa. Og hann kallade
þann sama stad Perez-Usa, allt til
þessa dags.
9. Og á þeim sama deige óttadest
David fyrer Drottne, og sagde:
hveinen má ørk Drottins koma til
mín?
10. Og hann villde eigi láta fly-
tia hana til sín i Davids borg,
helldur let hann færa hana í hus
Obed Edom Gathiters.
11. Enn sem ørk Drottins hafde
vered í húse Obed Edom Gathiters
þriá mánade, þá blessade Drottinn
hann og allt hans hús.
12. Þá David kongur fynrde
þetta ad Drottenn hafde blessad hús
Obed Edom, og allt þad hann
hafde, søkum Guds arkar, fór hann
af stad, og sókte Guds ørk, eg slútte
hana úr húse Obed Edom, og til
Davids borgar, med glede.
13. Og sem þeir høfdu genged
framm med Guds ørk sex skref, þá
offrudu þeir einum uxa, og einum
feitum saud,
14. Og David dansade fyrer af
øllu megne, fyrer Drottne, og var
umgyrdtur med einum línlíkyrtle
15. Og David, og allur Israel,
flútte Guds ørk upp med fagnade,
og basunum.
16. Enn sem Guds ørk kom inn
í Davids borg, þá leit Michol, dott-
er Sauls, út um glugg einn, og sá,
ad David kongur lek og dansade
fyrer Drottni, og hún forsmáde
hann í sínu hiarta.
17. Enn sem þeir innslúttu ørk
Drottins, þá settu þeir hana í sinn
stad, midt í tialldbudena, þá sem
David hafde uppreist til hennar.
Og David offrade brenneforum,
og þackarfórnum fyrer Drottne.
18. Enn sem David hafde offrad
brennefórnum og þacklætisfórnum,
blessade hann fólked í Drottins Ze-
baoths nafne.
19. Og hann útskipte øllu fólke,
og øllum Israels sofnude, bæde
mønnum og kvinnum, hverum fyr-
er sig, eina braudkøku, og eitt kiøt-
stycke, og einn mæler víns. Þá sne-
re allt fólked í burt, hver í sitt hús.
20. Enn sem David kom nú apt-
ur ad blessa sitt hús, þá geck Michol,
dotter Sauls, út imót hønum, og
sagde: hversu vegsamlegur var
kongurenn af Israel í dag, hver ed
afklæddest fyrer ambáttum þenara
sinna, so sem lausslátt folk plagar
ad afklædast.
21. Enn David sagde til Michol:
eg vil leika fyrer Drottni, þeim sem
mig útvalde, helldur enn þinn fød-
ur, og helldur enn allt hans hús, og
hefir boded mer ad vera høfdinge
yfer Drottins folki, yfer Israel.
22. Og eg vil enn nú verda min-
ne enn so, eg vil líteimotlegur vera

fyrer mínum augum, og vegsamast med þeim ambáttum sem þu talad=er um.

23. Enn Michol, dotter Sauls, átte engenn børn, allt til síns daudadags.

## 7. Capitule.

1. Nú sem konungurenn sat í sínu húse, og Drottinn hafde gefed bønum hvíld fyrer øllum hans óvinum, allt umkring,

2. Þá sagde hann til Nathan spámanns: siá! eg by í einu húse sem er bygt af Cedrus Vide, enn Guds ørk byr under tialldþake.

3. Nathan svarade kongenum: far og ger allt þad þú hefir í þínu hiarta, þvi Drottinn er med þer.

4. A þeirre nóttu kom ord Drottins til Nathan, og sagde:

5. Far og seig þú mínum þioni David: so seiger Drottinn: þu skallt bygga mer eitt hús ad búa í?

6. Eg hefe þó eigi í nockru húse búed, frá þeim deige sem eg færde Israels børn af Egyptalande, og allt til þessa dags, helldur hefi eg genged í tialldbúdum og landtiølldum.

7. Hvar sem eg fór med øllum Israels børnum, hefe eg og nockurn tíma talad vid nockurn af Israels kinkvíslum, sem eg hefe bifalad ad fæda mitt folk Israel, og sagt so: þvi bygged þer mer eigi eitt hus af Cedrus Vide?

8. Þvi skallt þú nú so seigia til Davids míns þions: so seiger Drottinn Zebaoth: Eg tók þig af saudahúsenu, ad þú skyllder vera einn høfdinge yfer minu folki Israel.

9. Og Eg hefe vered med þer, hvert sem þú hefir genged, og so hefi eg upprætt alla þína óvine fyrer þer, og gefit þer eitt stórt nafn, so sem nafn Magtarmanna á jørdu.

10. Og eg vil skicka mínu fólke Israel einn stad, og planta þad, og þar skulu þeir búa, og eigi meir fara villt, og vondskunnar børn skulu eigi meir þvinga þá, sem ádur er sked,

11. Og frá þeim tíma er eg skickade domendur yfer mitt folk Israel, og eg vil gefa þer hvíld fyrer øllum þínum óvinum, og Drottinn kunngerer þer, ad Drottinn vill gera þer eitt hus.

12. Og þá þinn tíme er nú kominn, ad þú liggur sofnadur med þínum fedrum, þá vil eg uppvekia þitt sæde epter þig, hvert koma skal af þínu líse, og þess ríke vil eg stadfesta.

13. Hann skal mínu nafne eitt hús byggia, og stól hans konungliga ríkis vil eg stadfesta æfinlega.

14. Eg vil vera hans fader, og hann skal vera minn sonur. Ef hann gerer einn misgerning, þá vil eg typta hann med mannanna hríse, og med plágum mannanna barna,

15. Enn mín miskunseme skal eigi snúast burt frá hønum, so sem eg snere henne frá Saul, hvern eg burttók frá þer.

16. Enn þitt hús og kongsríke skal vera stadfast æfennlega fyrer þer, og þinn stóll skal stødugur standa eylíflega.

17. Enn sem Nathan hafde nú sagt David øll þesse ord, og alla þessa vitran,

18. Þá kom David kongur og var fyrer Drottni, og sagde: hver em eg, Drottinn! Drottinn! og hvad er mitt hús, ad þú hefir fært mig hingad?

19. Og enn þotte þer þad ei nóg, Drottinn! Drottinn! helldur talader þú um þíns þenara hús sem koma skal laungum tíma her epter.

Þad er mannsins vísa þess sem er Gud Drottinn.

20. Og hvad skal David meir tala vid þig? þu þecker þinn þenara, Drottinn! Drottinn!

21. Søkum þins ords, og epter þínu hiarta, hefir þu gert alla þessa stóru hlute, ad þu viliber kunngera þá þínum þenara.

22. Þar fyrer ert þú miøg mikladur, Drottinn Gud. Þviad þar er eingenn so sem þú, og þar er eing enn Gud nema þú, epter øllu þvi sem ver høfum heyrt med vorum eyrum,

23. Þvi hvar er slíkt folk á jørdunne sem þitt folk Israel? fyrer hvers skull Gud burtgieck, ad frelsa ser eiged folk, og ad gera ser eitt nafn, og ad verka soddann stóra og hrædelega gerninga á jørdunne, fyrer þínu fólke, hvert þu frelsader þer af Egyptalande, fra heidingium, og þeirra Gudum.

24. Og þu tilbiost þer þitt folk Israel, þer til æfinnlegs folks, og þu Drottinn ert ordenn þeirra Gud,

25. So stadfest þu nú, Drottinn Gud, þad ord æfinnlega, sem þu talader um þinn þenara, og um hans hús, og ger sem þu hefir talad.

26. Þar mun þitt nafn miklad til æfinnlegrar tídar, so ad menn skulu seigia: Drottinn Zebaoth er Gud yfer Israel, og David þíns þenara hús skal standa stadfast fyrer þer.

27. Þviad þú Drottinn Zebaoth, þú Israels Gud, hefir opnad þíns þenara eyru, og sagt: eg vil byggia þer eitt hús, þar fyrer hefir þinn þenare fundet sitt hiarta, so ad hann bidur þessa bæn til þín.

28. Nu Drottinn! Drottinn! þú ert Gud, og þín ord skulu vera sannleikur, þú talader þetta hid góda yfer þínum þenara.

29. So tak nú til, og blessa þíns þenara hús, so þad se æfinnlega fyrer þer, þvi þú Drottinn! Drottinn! hefir þad talad, og med þinne blessan skal þíns þions hús blessast æfinnlega.

## 8. Capitule.

1. Og þad skede epter þetta, ad David sló þá Philisteos, og underþricte þá, og tók þrældoms beisled af Philisteanna hende.

2. Hann sló og þá Moabita so til grunna, ad hann drap tvo hlute, enn þridiung let hann lífa, so urdu Moabitar David undergefner, ad þeir færdu honum gáfur.

3. David sló og HadadEser, son Rehob, kongenn í Zoba, þa hann fór af sted, og villde heimta aptur sina magt hia vatnenu Phrath.

4. Og David fangade þusund og sio hundrud riddara af þeim, og tuttugu þusund fótgøngu lids, enn leste alla vagna, og hellt epter hundrad vøgnum.

5. Enn þar komu Syri af Damasco, ad hiálpa HadadEser, kongenum í Zoba, og David sló tvo og tuttugu þusund manna af þeim Syrlendsku.

6. Og sette folk[illegible]ter í Damasco í Syria. So vard Syria undergefenn David, ad þeir færdu honum gáfur. Þviad Drottinn hiálpade David, hvert hellst hann fór.

7. Og David tók þá gullskiolldu, sem heyrt høfdu til HadadEsers þenørum, og flúttu þá til Jerusalem.

8. Enn af Betah og Berothai, borgum HadadEsers, tók David kongur ófurmikenn málm.

9. Sem Thoi, kongur af Hemath, heyrde ad David hafde nidur sleiged alla magt HadadEsers,

10. Sende hann sinn son Joram

til David, og let heilsa honum vinsamlega, og bidia honum lucku, ad hann hafde heriad á HadadEser, og yferunned hann (þviad Thoi hafde ófrid vid HadadEser) og hann hafde med ser gersemar af silfre, gulle og kopar.

11. Hvad David kongur helgade Drottni, ásamt þvi silfre og gulle sem hann helgade Drottni af øllum heidingium, sem hann braut under sig,

12. Af Syria, af Moab, af Ammons børnum, af Philisteis, af Amalech, og af HadadEsers herfánge, sonar Rehobs, kongsins af Zoba.

13. Og David gerde ser eitt nafn, þá hann kom aptur, og sló þá Syros í salltdalnum, átian þusunder.

14. Og hann sette fólked í alla Edomea, og allt Edom var David undergefed, þviad Drottinn hiálpade David, hvert sem hann fór.

15. So vard nú David kongur yfer aullum Israel, og hann skickade øllum lídnum dóm og rettinde.

16. Joab, sonur ZeruJa, var yfer strídshernum, Josaphat, sonur Ahilud, var Cantzeler.

17. Zadoch, sonur Ahitob, og Ahimelech, sonur AbJathar, voru kennemenn, Seraja var skrifare,

18. Banaia, sonur Joiada, var settur yfer Crethi og Plethi, og Davids syner voru høfdingiar.

## 9. Capitule.

1. Og David sagde: mun þar nockur madur epter ordenn af húse Sauls, so ad eg meige veita honum miskun fyrer saker Jonathans?

2. Enn þar var einn þenare af húse Sauls, hann het Ziba, þann kølludu þeir fyrer David,

3. Og kongurenn sagde til hans: ert þú Ziba? hann sagde: já! þinn þenare, Kongurenn sagde: er þar enn nú nockur epter af húse Sauls, so äd eg meige veita honum Guds miskunseme? Ziba sagde til kongsins: þar er enn nú epter einn sonur Jonathans, og er fótlama.

4. Kongurenn sagde til hans: hvar er hann? enn Ziba svarade: siá! hann er í Lodabar, í húse Machirs, sonar Ammiels.

5. Þá sende David kongur þangad, og let sækia hann til Lodabar, af huse Machir sonar Ammiels.

6. Enn sem Mephi Boseth, sonur Jonathan, sonar Sauls, kom fyrer David, fell hann frammá sína ásionu, og tilbad. David sagde: Mephi Boseth; hann svarade: her em eg þinn þenare;

7. David sagde til hans: óttast eigi, þviad eg vil veita þer miskun fyrer saker þins fødurs Jonathan, so ad eg vil gefa þer aptur alla þá akra sem átte þinn fader Saul, og þú skallt daglega eta braud vid mitt bord.

8. Enn hann tilbad, og sagde: hver em eg þinn þræll, ad þú snyr þer til dauds hunds sem eg em?

9. Þá kallade kongurenn Ziba, Sauls þenara, og sagde til hans: eg hefe gefed syne þins Herra, allt þad sem Saul átte, og allt hans hús.

10. So skallt þú nú, og þin børn, og þiner þrælar hans akra vinna, og hyrd þad inn, ad þad se braud þins Herra sonar, so hann hafe atvinnu þar af. Enn MephiBoseth, sonur þins Herra, skal daglega eta braud vid mitt bord. Og Ziba hafde fimmtan syne, og tuttugu þræla.

11. Og Ziba svarade kongenum: allt þad sem minn Herra kongur hefir bóded sínum þenara, þad skal hans þenare gera.

12. Og MephiBoseth skal eta vid

mitt bord, so sem eitt af kongsins bornum. Og Mephi Boseth átte einn ungann son, sem het Micha. Og aller þeir sem biuggu í huse Ziba, þeir þiónudu MephiBoseth.

13. Og MephiBoseth bió í Jerusalem, þvi hann át daglega af kongsins borde, og var halltur á bádum fótum.

## 10. Capitule.

1. Og þad skede so þar epter, ad kongur þeirra Ammons barna andadest, og Hanon sonur hans tók kongdom í hans stad.

2. Þá sagde David: eg vil veita miskun Hanon, syne Nahas, so sem hans fader veitte mer miskun. Og hann sende þangad, og let sína þenara hugga hann epter sinn fødur. Enn sem Davids þenarar komu nú í Ammons barna land,

3. Þá sogdu Ammons barna høfdingiar til síns Herra Hanons: hyggur þú, ad David virde þinn fødur fyrer þínum augum, þar hann hefir sendt huggendur til þín? hugsar þú eigi, ad þar fyrer hafe hann sendt sína þenara til þín, ad hann kunne ad fá fregn um borgena, niósna um hana, og nidurbriota?

4. Þá tók Hanon þenara Davids, og rakade hálft skegged af þeim, og sneid hálft af þeirra klædum, allt til Belltis stadar, og let þá so fara.

5. Sem David var þetta sagt, þá sende hann á móte þeim, þviad mennerner voru skammarlega lyttcr. Og kongurenn let seigia þeim: vered í Jericho, þar til ad ydar skegg eru vaxenn, og komed so heim aptur.

6. Enn sem Ammons børn sáu þad, ad þeir voru illa luktande fyrer David, þá sendu þeir af stad, og leigdu ser Syrlendska, af húse Rehobs, og Syrlendska af Zoba, tuttugu þusund manns, med fótgangande lidi, og þusund manna af kongenum Maacha, og af Istob tolf þusund manna.

7. Þegar David spyr þetta, þá útsende hann Joab med allann her stridsfolksins.

8. Og Ammons børn fóru út, og bigguſt til bardaga, utann fyrer borgarhlidenu; enn þeir Syri, sem voru af Zoba, af Rehob, af Istob, og af Maacha, voru alleina á vollunum.

9. Enn sem Joab ser nú þad, ad honum er búenn bardagi, bæde á bak og fyrer, þá útvalde hann af øllum yngismøunum í Israel, og bióst ímóte þeim Syrlendsku.

10. Enn þad lid sem afgangs var sette hann under hønd síns brodurs Abisai, so hann byggest ímót Ammons børnum, sagde:

11. Kunne so ad ske, ad þeir Syri bere mig ofurmegne, þá kom mer til hiálpar. Enn ef Ammons børn verda þer yferſterkare, þá vil eg koma þer til hiálpar.

12. Vertu hughrauſtur, og lát ockur vera hrauſta fyrer vorn folki, og fyrer Guds vors borger. Enn láte Drottinn ganga sem hann vill.

13. Og Joab geck framm med fólked, sem med honum var, ad ſtrída móte þeim Syris, og þeir flydu undann honum.

14. Enn sem Ammons børn þad sáu, ad þeir Syri helldu á flótta, þá flúdu þeir og so undann Abisai, og fóru í borgena. Epter þad snere Joab aptur frá þeim Ammons børnum, og kom til Jerusalem.

15. Og þá þeir Syri sáu sig so slegna fyrer Israel, þá komu þeir samann í einn hóp.

16. Og HadadEser sende út, og færde út þá syrlendsku á hina sídu

vatnsins, og færde þeirra magt þar til, og Sobach, sem var hershøfdinge HadadEser, fór undann þeim.

17. Enn sem David þad feck ad vita, þá safnade hann øllum Israel tilsamans, og fór yfer um Jordan, og kom til Helam. Og þeir Syri biuggu sig ímóte David, ad strída vid hann.

18. Enn Syri helldu á flótta fyrer Israel. Og David sló af þeim Syris siø hundrud vagna, og fiørutíu þusund riddaralids. Þar til sló hann og Sobach, þeirra høfudsmann, so hann dó þar.

19. Enn þá þeir kongar, sem voru under HadadEser, sáu sig verá slegna fyrer Israel, þá gerdu þeir frid vid Israel, og urdu þeim undergefner. Og þeir af Syria þordu eigi ad veita fulltingi Ammans børnum þadann í frá.

## 11. Capitule.

1. Og ad árenu lidnu, á þeim tíma sem kongar voru vaner ad fara úti herfarer, þá sende David Joab, og sína þenara med hønum, og allann Israel, ad þeir skylldu fordiarfa Ammons børn, og setiast um Rabba; enn David sat heima í Jerusalem.

2. So bar til, ad David stód upp af sinne sæng um kvølldtid, og geck uppá þaked á kongs hollene, og sá af þakenu, huar kvinna var ein ad lauga sig, og sú kvinna var hardla føgur.

3. Og David sende þangad, og let spyria epter kvinnunne, og seigia: er þad eigi Bersabee, dotter Eliams, husfru Uria Hethiters?

4. Og David sende bod þangad, og let sækia hana. Og sem hún kom inn til hans, þá svaf hann med henne, þúsat hún hafde hreinsad sig af sínum saurendum, og hún snere aptur heim til síns húss.

5. Og kvinnann vard þungud, og sende þegar, og let kunngera þad David, og sagde: eg em ordenn ólett.

6. Þá sende David bod til Joab: send til min Uriam Hethiter. Og Joab sende Uriam til Davids.

7. Og sem Urias kom til hans, þá frette David, hvert vel tilstæde um Joab, og fólked, og strided.

8. Og David sagde til Uria: far nidur í þitt hús, og lauga fætur þínar. Enn sem Urias geck ut af kongsins hollu, þá var borenn epter hønum kongsins sending.

9. Og Urias fór ad sofa fyrer kongs hallar dyrum, þar sem aller þenarar hans Herra láu, og fór eigi nidur í sitt hús.

10. Enn sem David var sagt, ad Urias hafde eigi fared nidur í sitt hús, þá sagde David til hans: ert þu eigi nykomenn heim af ferd? þvi fórst þu eigi nidur í þitt hús?

11. Uria svarade David:Ørkenn, og Israel, og Juda, eru í landtiølldum, og Joab minn Herra, og míns Herra þenarar liggia á mørkinne, og skyllde eg þá fara í mitt hús, eta þar og drecka, og liggia hiá minne kvinnu? so sannarlega sem þu lifer, og þín sál lifer, eg gere eigi slíkt.

12. David sagde til Uria: Þá vertu her og so í dag, enn á morgun vil eg láta þig fara. So var Urias í Jerusalem þann dag, og þann annann dag þartil.

13. Og David bafde hann í bode sínu, og hann át og drack med hønum, og gerde hann druckenn. Enn ad kvølldi geck hann út ad leggia sig til svefns á sína sæng, med síns Herra sveinum, og geck eigi nidur í sitt hús.

14. Um morguninn skrifade David eitt bref til Joabs, og sende þad med Uria,

15. Enn hann skrifade so í brefed: seted Uriam í strídeð, þar sem þad er hardast, og víked frá hønum til baka, so ad hann verde sleigenn, og deye.

16. Sem Joab lá nú um stadenn, skipar hann Uria í þann stad sem hann visse hraustasta strídsmenn fyrer vera.

17. Enn sem borgarmenn gengu út, og børdust vid Joab, þá fellu nockorer af Davids þenurum, og Uria Hethiter dó og so.

18. Þá sende Joab, og let undervísa David allt hveruenn bardaganum genge.

19. Og hann baud sendemannenum, og sagde: nær þú hefir sagt kongenum allann atburd þessa bardaga.

20. Og ef þú ser, ad kongurenn verdur reidur, og seiger til þín: þvi gáfud þer ydur so nær borgenne í þessu stríde, vissud þer eigi hvernenn menn plaga ad skiota ofann af borgarveggium?

21. Hver sló til dauda AbiMelech, son JerubBeseth? kastade eigi ein kvinna kvarnarsteins brote nidur á hann af múrnum, so hann dó í Thebez? hvar fyrer gáfud þer ydur so nær under borgarveggenn? þá skallt þú seigia: þinn þenart Urias Hethiter er og so daudur.

22. Sendemadurenn fór og kom, og flútte David allt þad sem Joab hafde lagt fyrer hann.

23. Og sendemadurenn sagde til Davids: mennerner báru oss ofurmegne, og gengu út til vor á vøllana, enn ver forum epter þeim, allt til portdyranna.

24. Enn skotmennerner skutu af múrnum uppá þína þenara, og drápu nockora af kongsins þenurum. Þar til er Urias Hethiter, þinn þenare, og so daudur.

25. David svarade sendemannenum: so skallt þú seigia Joab: lát eigi þetta þer mislíka, þviad sverded uppetur jmest þennann, edur hinn; hallt aframm ad strída í móte stadnum, so þú nidur bríóter hann, og vered allhrauster.

26. Þegar Urie kvinna fretter ad hennar bonde Urias var fallenn, harmade hún vegna sins húsbonda.

27. Enn sem hún hafde útharmad, sende David epter henne, og let leida hana í sitt hús, og hún vard hans eigennkvinna, og fædde hønum einn son. Enn þetta verk mislíkade Drottni, er David gerde.

## 12. Capitule.

1. Og Drottinn sende Nathan til Davids. Og sem hann kom til hans, sagde hann til hans: tveir menn voru í einne borg, annar var ríkur, enn annar fátækur.

2. Sá hinn ríke átte fiølda bæde sauda og nauta.

3. Enn sá fátæke átte ecke, utann einn lítenn saud, hvern hann hafde keypt, og alid hann upp, so hann vox upp hiá hønum ásamt med hans børnum. Hann át af hans braude, og drack af hans kere, og svaf í hans fadme, og hann hellt hann so sem eina dottur.

4. Enn er einn gestur kom til hins ríka manns tímde hann eigi ad taka af sínum saudum, ne nautum, til ad tilreida nockud handa gestenum sem til hans var komenn, helldur fór hann, og tók saud þess fátæka manns, og tilreidde hann handa þeim manne sem til hans var komenn.

5. Þá grambest David med storre reide á móte þeim manne, og sagde til Nathan: so sannarlega sem ad Drottinn lifer, sá madur er daudans barn, er þvilíkt gerde.

6. Þar til skal hann bitala þann

saud, fiorum verdum, þar fyrer, ad hann gerde slíkt, og þirmde hønum eigi.

7. Þá sagde Nathan til Davids: Þú ert þesse hinn same madur. So seiger Drottinn Israelis Gud: eg smurda þig til kongs yfer Israel, og frelsade þig af hende Sauls.

8. Og gaf þer þíns Herra hús, þar med gaf eg þer hans kvinnur í þitt fáng, og gaf þer Israels og Juda hús, og se þetta óslited, þá vil eg enn leggia þad og þad til.

9. Þvi hefir þú þá forsmád Drottins ord, ad þú gerder soddann illsku fyrer hans augum? Uriam Hethiter hefir þú dreped med sverde; hans hússfru hefir þú teked þer til eigennkvinnu, enn hann siálfann hefir þú sleiged ihel med sverde Ammons barna.

10. Nú, þar fyrer skal sverded eigi linna af þínu húse æfinlega, søkum þess, ad þú forsmáder mig, og tokst Urie Hethiters hússfru, ad hún yrde þín eigennkvinna.

11. So seiger Drottinn: siá! eg vil uppvecka ólucku í gegn þer af siálfs þíns húse, og eg vil taka þínar kvinnur, fyrer þínum augum, og gefa þínum náunga þær, og hann skal sofa hiá þínum kvinnum vid klára sól.

12. Þviad þú gerder þetta leynelega, enn eg vil gera þad fyrer øllum Israel, og í augsyn solarennar.

13. Þá sagde David til Nathan: misgert hefe í móte Drottne. Nathan sagde til Davids: so hefir og Drottinn í burt teked þína synd, þú munt eigi deya.

14. Enn søkum þess, ad þú hefir komed Guds óvinum, fyrer þetta verk, til ad lasta, þá skal sá sonur, sem þer er fæddur, vissuliga deya.

15. Og Nathan geck heim. Og Drottinn sló þad barn sem hússfru Urie hafde fædt David, so þad vard daudsiukt.

16. Og David leitade til Guds fyrer barnenu og fastade, og geck inn, og lá um nóttina á jørdu.

17. Þá uppstódu þeir elstu af hans húse, og villdu hafa reist hann frá jørdunne, enn hann villde í engann máta, og eigi helldur át hann med þeim.

18. Enn á þeim siøunda deige þá dó barned. Og Davids þenarar þordu eigi ad seigia hønum, ad barned være daudt, þvi þeir hugsudu: siá! þá barned var nú enn lífs, tøludum ver vid hann, og hann villde eigi hlyda vorre raustu. Hvad miked meir mun hann af hriggd þínast, ef ver seigium, ad barned se daudt?

19. Enn sem David sá, ad hans sveinar kvísudu sín á mille, og merkte, ad barned munde daudt, þá sagde hann til sinna þenara: er barned daudt? þeir svørudu: já.

20. Þá stód David upp af jørdunne, og þvode ser, og smurde sig, og tók á sig ønnur klæde, og geck í hus Drottins, og badst fyrer. Enn sem hann kom heim aptur, þá baud hann ad bera braud fyrer sig, og hann át.

21. Þá søgdu hans þenarar til hans: hvad er þetta fyrer einn hlut sem þú gerer? á medann barned lifde, þá fastader þú og gretst, enn nú barned er daudt, stendur þú upp og fær þer mat?

22. Hann svarade: eg fastade, og gret søkum barnsins, þá þad lifde, þvi eg hugsade: hver veit, nema Drottinn verde mer nádugur, ad barned meige lifa.

23. Enn nú, ad þad er daudt, hvad skal eg fasta? eda mun eg geta sókt þad aptur? eg fer vel til þess, enn þad kemur eigi til mín aptur.

24. Enn sem David hafde nú

huggad sína kvinnu Bersabee, þá geck hann inn til hennar, og svaf med henne. Og hún fæddе einn son, þann nefnde hann Salomon, og Drottinn elskade hann.

25. Og hann sette hann under hønd Nathans spámanns, og hann kallade hannJedidJa,vegnaDrottins.

26. Joab bardest nú vid Rabba Ammons barna, og hann vann þann konunglega stad.

27. Og sende bod til Davids, og let seigia hønum: eg hefe nú strídt á Rabba, og eg hefe og so unned vatns stadinn.

28. So kalla nú samann þad folk sem epter er, og setst um borgena, og vinn hana, so ad eg vinne hana eigi og eg hafe nafn þar af,

29. Sídann tók David allt fólked, tilsamans, og fór út, og heriade á Rabba, og vann hana,

30. Og hann tók þeirra Kongs Koronu af hans høfdi, sem vóg eitt centener gulls,med dyrdlega steina, og hún var sett á høfud Davids. Og hann flutte úr þeirre borg miøg miked herfáng.

31.Enn fólked,sem þar inne var, flútte hann út, og lagde þá under járnsøg, og plog, og járn fleiga, og brennde þad í tigulofne. So gerde hann vid alla Ammons barna stade. Sídann snere David heim aptur til Jerúsalem, og allt fólked.

## 13. Capitule.

1.Og þad skede epter þetta, adAbsalon, sonurDavids, átte eina dægelega systur, hún het Thamar, og Amnon, sonurDavids, lagde ástarhug á hana.

2. Og Amnon lest vera siukur, vegna systur sinnar Thamar, þvi hún var ein jungfrú, og þad þótte Amnon torvelldt vera ad gera henne nockud.

3. Amnon hafde einn vin, hann hetJonadab, sonurSimea, broðurs Davids, og sá Jonadab var miøg vitur madur.

4. Hann sagde til hans: hvar fyrer verdur þú, kongs sonur, so magur dag frá deige? kanntu eigi ad seigia mer þad? þá sagde Amnon til hans: eg hefe fenged ást á Thamar,systerAbsalons,broðurs míns.

5. Jonadab sagde til hans: þú skallt leggiast í þína reckiu, og lát sem þú sert siukur, enn sem þinn fader kemur ad vitia þín, þá seig þú til hans: leyf minne systur Thamar ad koma, so hún gefe mer ad eta, og matbúe fyrer mig einn rett, ad eg siáe þar uppá, og at eg ete af hennar hende.

6. Sídann lagde Amnon sig, og letst vera siukur. Sem kongurenn kom nú ad siá hann, þá sagde Amnon til kongsins: Eg bid ad þú láter mína systur Thamar koma, ad hún matreide mer einn gódann rett, edur tvo, so ad eg meige eta af hennar hende.

7. Þá sende David bod epter Thamar í húsed, og let seigia henne: far í hús þíns broðursAmnons, og tilbú hønum fædu.

8. Thamar geck í hús síns broðurs Amnons; enn hann lá í sinne reckiu; hún tók deig, og hnodade, og saud fyrer hans augum, og matreidde hønum einn sætann rett.

9. Og hún tók matgerdena, og gaf hana upp fyrer hann. Enn hann villde eigi eta. Þá sagdeAmnon; lát alla menn ganga út frá mer, og þeir geingu aller út frá hønum.

10. Þá sagde Amnon til Thamar: ber þú rettenn í herberged, so eg meige eta af þinne hende. Þá tók Thamar þann góda rett, sem hún hafde tilreidt, og bar fyrer

Amnon sinn brodur í svefnherberged.

11. Og sem hún bar hann til hans, ad hann skyllde eta, þá þreif hann til hennar, og sagde til hennar: kom hingad, mín syster, og sof hiá mer.

12. Hún sagde: nei, minn broder, skamma þú mig eigi, þviad ei gerer nockur so í Israel. Ger ei slíkt heimskupar,

13. Þvi, hvad skyllde eg af mer gera med mína skømm? enn þú munt vera sem heimskur dáre í Israel. Enn tala þú þetta vid kongenn, þá neitar hann mig þer eigi.

14. Enn hann villde eigi hlyda henne, og tók hana med naudyng, og kreinkte hana, og svaf med henne,

15. Og Amnon lagde á hana ofurmikla óþyckiu, so hann hatade hana miklu meir, enn hann hafde hana ádur elskad. Og Amnon sagde til hennar: statt upp, og far burt.

16. Hún svarade hønum: stærre er þesse vondska enn þad annad sem þú hefir gert vid mig, ad þú burt rekur mig. Enn hann villde eigi hlyda hennar raustu,

17. Helldur kallade á sinn svein, sem þiónade hønum, og sagde: rek þú hana í burt frá mer, og loka þú dyrunum epter henne.

18. Og hún var klædd mislitum kyrtle, þviad konga dætur høfdu sløddann kyrtel, medan þær voru meyar. Nú sem hans þenare hafde reked hana út, og lokad dyrunum epter henne,

19. Þá dreifde Thamar øsku uppá høfud sier, og reif þann mislita kirtel sem hún var í, og lagde sína hønd á sitt høfud, og geck framm grátande.

20. Og hennar bróder Absalon sagde til hennar: hefir þinn broder Amnon vered hiá þer? nú mín syster, þeig þú, hann er þinn broder, legg eigi þann hlut so á hiarta. So var Thamar einsleg í húse Absalons síns broders.

21. Enn sem allt þetta frette David kongur, vard hann afar reidur.

22. Enn Absalon talade ecke vid Amnon, hverke illt ne godt. Enn Absalon var illa vid Amnon fyrer þad, ad hann hafde kreinkt Thamar hans syster.

23. Enn þá tvø ár voru lidenn, let Absalon klippa saude sína í Baal Hazor, sem ad liggur under Ephraim. Og Absalon baud øllum kongsins børnum,

24. Og hann kom til kongsins, og sagde: siá! þinn þenare lætur klippa saude sína (þar fyrer bid eg) ad kongurenn, med sínum sveinum, vile fara med sínum þenara.

25. Kongurenn svarade Absalon: nei, minn sonur: lát oss ei alla fara, so ad ver gerum þer ei kostnad. Enn sem hann bad hann mikelega þar um, þá villde kongurenn eigi ad helldur fara, enn hann blessade hann.

26. Þá sagde Absalon: skal þá eigi minn broder Amnon fara med oss? kongurenn svarade hønum: til hvers skal hann fara med þer?

27. Þá neydde Absalon hann, so ad hann let Amnon og øll kongsins børn fara med hønum.

28. Enn Absalon baud sínum sveinum, og sagde: siáed vel til, ad þá Amnon er ordenn víndruckenn, og eg seige til ydar: sláed Amnon, og drepeð hann, ad þer seud óhræddir, þviad eg skipade ydur þad, þar fyrer vered fullhugader, og øruggir þar til.

29. Sveinar Absalons gerdu vid Amnon so sem Absalon hafde boded þeim. Þá spruttu upp øll kongsins

børn, og hver einn og einn ste á bak síinum múl, og flyde.

30. Enn sem þeir voru nú á veigenum, þá slaug sú kvittur fyrer David, ad Absalon hefde dreped øll kongsins børn, og ad engenn af þeim munde lifa epter.

31. Þá stód kongurenn upp, og reif sín klæde, og lagde sig til jardar, og aller hans þenarar, þeir sem kringum hann stódu, rifu sín klæde.

32. Þá svarade Jonadab, sonur Simea, brodur Davids, og sagde: minn Herra, hugsa eigi, ad aller sveinarner, kongsins børn, se daudar, helldur er Amnon alleinasta daudur. Þvi Absalon hefir þad geymt med ser, frá þeim deige, eg ar hann kreinkte hans systur Thamar.

33. Þar fyrer legge minn Herra kongur eige slikt á hiartad, ad øll kongsins børn mune daud vera, helldur er Amnon alleinasta daudur.

34 Enn Absalon flyde. Og sveinn enn á vardhalldenu hóf sin augu upp, og litadest um, og siá! mikell mannflockur kom á veigenu, hver epter ødrum, hiá sídu fiallsins.

35. Þá sagde Jonadab til kongsins: siá! kongsins børn koma, þad er so sked sem þinn þenare sagde.

36. Og sem hann hafde utalad, siá: þá komu kongsins børn, upphófu sína rødd og gretu. Kongurenn, og aller hans þenarar, gretu og miøg fastlega.

37. Enn Absalon flyde, og fór til Thalmai, sonar Ammihud, kongsins í Gesur. Enn hann syrgde son sinn alla daga.

38. Enn sem Absalon flyde, og fór til Gesur, var hann þar í þriu ár.

39. Og David kongur hætte ad draga út móte Absalon, þviad hann hafde huggast yfer Amnon, þad hann var daudur.

## 14. Capitule.

1. Enn Joab, sonur ZeruJa, merkte, ad kongsins hiarta var á móte Absalon,

2. Og hann sende til Thekoa, epter einne vísdoms konu, og sagde til hennar: lát sem þú sert harmþrúngenn, og fær þig í sorgarbúning, og smyr eigi þig med oleo, helldur syn þig so sem eina kvinnu, su sem lenge hefir gráted manna misser.

3. Og þú skallt ganga inn fyrer kongenn, og tala vid hann so og so. Og Joab lagde henne ord í munn, hvad hun skyllde tala.

4. Og þá kvinnann af Thekoa villde tala vid kongenn, fell hún framm til jardar á sitt andlit, tilbad og sagde: hiálpa mer kongur!

5. Kongurenn sagde til hennar: hvad skadar þig? hun svarade: eg em ein eckia, ein harmþrungenn kvinna, og minn bonde er andadur.

6. Og þín þiónustukvinna átte (epter tvo sonu, þeir urdu missátter á akre, og søkum þess, ad þar var engenn sem kunne ad hiálpa, sló sá eine þann annann, og drap hann.

7. Og siá! nú rísa upp aller frændur mót þinne þiónustu kvinnu, og segia: frammsel þann sem sló sinn brodur íhel, so ver meigum taka hann af líse, fyrer hans brodurs sál, sem hann drap, og afmá hans arf, og vilia so útsløckva minn gneista, þann epter er, so ad bonde minn hafe ecke nafn epter sig á jørdunne.

8. Kongurenn svarade kvinnunne: far heim, eg vil gefa ut bifalning þinna vegna.

9. Kvinnann af Thekoa svarade kongenum: minn Herra kongur! sá

misgerningur se yfer mer og minu fodurs huse, enn kongurenn og hans hásæte se saklaust.

10. Kongurenn svarade: hver sem mæler á móte þer, lát hann koma hingad fyrer mig, þadann af skal hann ei snerta þig,

11. Hún sagde: kongur! hugsa þú til Drottins þins Guds, ad blóðhefnararnar verde ei ofmarger til ad fordiarfa, so ad þeir afmáe eigi minn son. Hann sagde: so sannarlega sem ad Drottinn lifer, þá skal þar eigi falla eitt hár á jørd af þínum syne.

12. Og kvinnann sagde: lát þína þiónustukvinnu seigia mínum Herra kongenum nockud. Hann sagde: seig þu framm.

13. Kvinnann mællte þá: hvar fyrer hefir þú soddann hugsad ímóte Guds fólke, ad kongurenn hefir talad soddann ord, ad hann verde sekur, og lætur eigi sækia aptur sinn hinn útreknad?

14. Þviad ver deyum vissulega, og so sem vatn rennur í jørdena, þvi sem eigi er hamlad, og Gud vill eigi taka lífed í burt, helldur hugsar hann, ad þad utrekna verde eigi og so af hønum útreked.

15. Þar fyrer em eg nú komenn, ad tala þetta vid minn Herra konginn, þviad fólked gerer mer sturlan. Þviad þín þionustu kvinna hugsade: eg vil fara og tala vid kongenn, ske má, ad hann gere þad sem hans ambátt seiger.

16. Þviad hann mun bænheyra sína þiónustu kvinnu, ad hann frelse mig af þeirra allra hende, sem mig vilia afmá, og minn son, af Guds arfleifd.

17. Og þín þiónustukvinna hugsade: míns Herra kongsins ord skulu vera mín huggan, þvi minn Herra kongurinn er sem Guds eingell, so ad hann kann ad heyra bæde godt og illt, og þvi mun Drottinn þinn Gud vera med þer.

18. Kongurenn svarade, og sagde til kvinnunnar: leyn mig eigi þvi sem eg vil spyria þig. Kvinnann svarade: minn Herra kongur tale.

19. Kongurenn sagde: er eigi Joabs hønd med þer í ollu þessu? kvinnann svarade, og sagde: so sannarlega sem þín sál lifer, minn Herra kongur, þá er engenn annar, hverke á þá hægre hønd, ne vinstre, nema sá sem minn Herra kongurenn sagde. Þvi þinn þenare Joab baud mer þetta, og hann lagde þinne þiónustu kvinnu øll þesse ord í munn,

20. Ad eg skyllde so snúa þessu málefne, þad hefir þinn þenare Joab gert. Enn minn Herra er vís sem Guds engels vísdomur, ad hann skilur alla hlute á jørdunne.

21. Þá mællte kongurenn vid Joab: siá! eg hefe gert þetta, þar fyrer far nú og sæk sveinenn Absalon aptur.

22. Þá fell Joab framm á sitt andlit til jardar, og tilbad, og þackade kongenum, og sagde: í dag merker þinn þenare, ad eg hefi funded nád fyrer þínum augum, minn Herra kongur, ad kongurenn gerer hvad hans þenare seiger.

23. Sídann bió Joab sig, og fór til Gesur, og flútte Absalon til Jerusalem.

24. Enn kongurenn sagde: lát hann fara í sitt hús aptur, og siá eigi mitt andlit. So kom nú Absalon í sitt hus aptur, og sá eigi kongsins andlit.

25. Enn þar var eigi so frídur madur á medal alls Israels sem Absalon, og hann hafde þá frægd fyrer øllum mønnum, ad eigi var lyte á hønum á millum hæls og hvirfels.

26. Og þá menn rakudu hans

høfud(sem skede almennelega hvert ár; því hønum var of mikel þyngd ad því, ad hann vard ad láta klippa þad af) þá vog hans høfud hár tvø hundrud sikla, epter kongsins vígt.

27. Og Absalon átte þriá syne, og eina dottur, sem het Thamar, og hún var ein dægeleg kvinna atburdum.

28. So var Absalon tvø ár í Jerusalem, ad hann sá eigi kongsins andlit.

29. Og Absalon sende epter Joab, ad hann villde senda hann fyrer kongenn; enn hann villde ei koma til hans. Og hann sende í annad sinn; samt villde hann eigi koma.

30. Þá sagde hann til sinna sveina: siáed! Joabs akurs partur (liggur) í nánd mínum, og hann hefir bygg þar á, so fared nú, og seted elld þar í. Þá fóru Absalons sveinar og settu elld á þann (akurs) part.

31. Sídann stód Joab upp, og geck í Absalons hús, og sagde til hans: því settu þíner sveinar elld á minn part (akursins)?

32. Absalon sagde til Joabs: siá! eg sende epter þer, og let seigia þer: kom til mín, so eg meige senda þig fyrer kongenn, og villda eg hafa láted þig seigia: því em eg komenn frá Gesur? mer hefde vered betra, ad eg være þar ennnu. So lát mig nú siá kongsins andlit, enn se misgerningur medur mer, þá slá mig ihel.

33. Og Joab geck inn fyrer kongenn, og undervísade hønum þetta. Og hann kallade á Absalon, ad hann kom fyrer kongenn. Og hann tilbad framm á sitt andlit til jardar fyrer kongenum, og kongurenn kyste Absalon.

## 15. Capitule.

1. Og þad skede so epter þetta, ad Absalon let tilreida ser vagna og hesta, og fimmtíu menn ser til hirdmanna.

2. Og Absalon stód ætíd snemma upp á morgna, og geck á veiginn hiá borgarhlide. Og hver sá madur, sem nockur málefne hafde, ad hann skyllde koma fyrer konginn under dóm, þann kallade Absalon til sín, og sagde: af hverre borg ert þú? og þegar hinn sagde hønum; þinn þenare er af einne Israels ættkvísl.

3. Þá sagde Absalon til hans: siá! þú hefir gód og rett málefne; enn engenn er settur til af kongenum sem þig skal heyra.

4. Absalon sagde: oh! hver vill setia mig til dómara í landenu, ad hver madur kæme til mín, sem nockurt mál edur dóm hefde, so ad eg hiálpe hønum til rettinda?

5. Og þá nockur kom til hans, og villde tilbidia hann, þá útrette hann sína hønd, og tók ímóte hønum, og kyste hann.

6. So gerde Absalon vid allann Israel, nær sem menn komu til doms fyrer kongenn: og so stal hann Israels manna hiørtum.

7. Epter lidenn fiørutíu ár, sagde Absalon vid kongenn: eg vil fara og framkvæma heit mitt í Hebron, sem eg het Drottne.

8. Þvíad þann tíma sem eg bió í Gesur í Syria, þá het þinn þenare eitt heite, og sagde: ef so er, ad Drottinn lætur mig komast heim aptur í Jerusalem, þá vil eg gera Drottni eina Guds þiónustu.

9. Kongurenn sagde til hans: far af stad med fride, og hann tók sig upp, og fór til Hebron.

10. Enn Absalon hafde útsendt

nióśnar menn til allra Israels kin-
kvísla, og let so seigia: nær þer heyr-
ed hliod basununnar, þá seiged: Ab-
salon er ordenn kongur í Hebron.
11. Enn þar gengu tvo hundrud
manna med Absalon, af Jerusalem,
sem voru kallader, enn þeir gengu
í sínum einfalldlegleika, og vissu ei-
gi hvad under bió.
12. Absalon sende og so epter
Achitophel Giloniter, rádgiafa Da-
vids, af hans stad Gilo. Enn sem
hann færde nú fórner, þá vard sam-
banded sterkt, og fólked hlióp til,
og fiølgadest med Absalon.
13. Þá kom einn, og kunngerde
þetta David, og sagde: hvers manns
hiarta í Israel fylger Absalon ept-
er.
14. David sagde til allra sinna
þenara sem hiá hønum voru í Jeru-
salem: støndum upp og fordum oss,
þviad eigi mun her kostur ad flya
undann Absalon. Flyted ydur, og
førum, so hann teppe oss eigi inne,
og grípe oss, og leide ólucku yfer
oss, og slae stadenn med sverde.
15. Kongsins þenarar søgdu til
hans: allt hvad minn Herra kong-
urenn útvelur, siá, her eru þíner
þiónar.
16. Og kongurenn fór út gang-
ande, og allt hans hús. Enn hann
let tíu af sínum frillum epter, ad
geyma herbergia.
17. Og sem kongurenn og allt
fólked var nú útkomed gangande,
stód þad langt frá húsenu.
18. Og aller hans þenarar gen-
gu med hønum, þar med aller Cre-
thi og Plethi, og aller Gethiter, sex
hundrud manna, sem komenn voru
frá Gath gangande, gengu und-
ann kongenum.
19. Og kongurenn sagde til I-
thai Gethiter: þvi fer þú og so med
oss? snú þú aptur, og vert hiá kong-
enum, þvi þú ert útlendur madur,
og ert komenn hingad frá þínum
stad.
20. Þú komst í gær, og skyllda eg
láta þig í dag ganga med oss? enn eg
mun ganga, hvert eg kann ad gan-
ga; snú aptur, ad þínum brædr-
um med þer veitest miskunsemd og
samnleikur.
21. Ithai svarade, og sagde: so
sannarlega sem Drottinn lifer, og
so víst sem minn Herra kongurenn
lifer, hvar hellst sem minn Herra
kongurenn verdur, hvert sem þad
er til lífs, eda til dauda, þar skal og
þinn þenare vera.
22. David sagde til Ithai: so kom
og far med. So fór Ithai Gethiter,
og aller hans menn, og øll þau børn
sem voru med hønum.
23. Og allt landed gret med hár-
re raustu, og allt fólked geck med. Og
kongurenn geck yfer um lækenn Ke-
dron, og allt fólked geck undann, á
þann veg sem liggur til eydemerk-
ur.
24. Og siá, Zadok var og þar, og
aller þeir Levitar sem voru med høn-
um, og báru Guds sáttmáls ørk, og
þeir settu hana þar. Og AbJathar
geck upp, til þess ad fólked kom allt
af stadnum.
25. Enn kongurenn sagde til Za-
dok: bered Guds ørk aptur í stad-
inn. Ef eg finn nád fyrer Drottne,
þá lætur hann mig koma aptur, og
leyfer mer ad siá hana, og sitt hús.
26. Enn ef hann seiger so: eg hefe
eigi þocknan á þer, siá þá em eg her,
gere hann vid mig sem hønum vel
líkar.
27. Og kongurenn sagde til Za-
doks kennemanns: ó þu siáandes
snú þú aptur í stadinn med fride, og
báder ydrer syner med ydur, Ahi-
maas þinn sonur, og Jonathan, son-
ur AbJathars.

28. Siá! eg vil bída á þessu slettlende í eydemørkenne, þar til ad bodskapur kemur frá yckur, og þid undervísed mer.

29. So færdu þeir Zadok og AbJathar Guds ørk aptur í Jerusalem, og voru þar.

30. Enn David geck ad fialle Oliveti, grátande, med huldu høfde, og berfættur, so og allt fólked, sem var med honum, huldu høfud sín, og gengu grátande.

31. Og sem þad var David undervísad, ad Achitophel være í sambande med Absalon, þá sagde hann, Drottinn! ger þú Achitophels rád ad heimsku!

32. Og er David kom upp á hæder þær, þar menn voru vaner ad tilbidia Gud, siá, þá mætte Husai Arachiter hønum, med sundur rifnum kyrtle, og med molld á sínu høfde.

33. Og David sagde til hans: ef þú fer med mer, þá verdur þú mer til þyngsla.

34. Enn ef þú gengur aptur í borgena, og seiger til Absalon: eg em þinn þenare, eg vil vera kongsins, eg sem var þíns fødurs þenare í þann tíma, vil nú vera þinn þenare. So muntu mer til gagns, gera til einskis rádagerder Achitophels.

35. So eru og Zadok og AbJathar prestar med þer, hvers þú verdur vís í kongsins garde kannt þú allt seigia Zadok kennemanne og AbJathar.

36. Siá! þeirra tveir syner eru hiá þeim, Ahimaals, sonur Zadoks, og Jonathan, AbJathar sonur; med þeim kannt þú ad senda mer sanna vissu af því sem þú heyrer.

37. Epter þetta kom Husai, vinur Davids, í borgena, og Absalon kom til Jerusalem.

## 16. Capitule

1. Enn sem David var skammt gengeinn frá hædenne: siá! þá mætte hønum Ziba, þenare Mephiboseth, med tvo sødlada asna, þar á voru tvø hundrud braud, og hundrad klasar rusina, og hundrad klasar fíkur, og einn leigell víns.

2. Kongurenn sagde til Ziba: hvad villtu gera med þetta? Ziba svarade: asnarner skulu vera til reidar kongsins þenørum, braudeð og fíkurnar fyrer svein na ad eta, og víneð ad drecka, þa þeir þreytast í eydemørkenne.

3. Kongurenn sagde: hvar er sonur þíns Herra? Ziba sagde til kongsins: siá! han var epter í Jerusalem, því han sagde: í dag skal Israels hús gefa mer aptur míns fødurs ríke.

4. Kongurenn sagde til Ziba: siá! allt þad sem Mephiboseth hefir, þad skal vera þitt, Ziba sagde: eg tilbid, lát mig finna nád fyrer þer, minn Herra kongur.

5. Enn sem David kongur kom til Bahurim: siá! þá geck þar einn madur út, af slekte Sauls huss, sá het Simei, sonur Gera. Hann geck framm bølvande.

6 Og steinum kastande ad David, og øllum þenørum kongsins Davids, þviad fólked, og aller þeir hiner vollduguſtu menn, voru hønum á hægre og vinstre hønd:

7. Enn so sagde Simei: þá hann bølvade: her út, her út, þu blódhundur, þú orádvande madur.

8. Drottinn hefir nú bitalad þer allt þad blód hússens Sauls, ad þú ert ordinn kongur í hans stad. Nú hefir Drottinn gefed ríked í hendur þínum syne Absalon. Og siá, nú ertu midt í þinne óluku, því þú ert einn blódhundur.

9. Abisai, sonur ZeruJa, sagde til kongsins: skal þesse daudur hundur bølva mínum Herra konge? eg vil fara til og slá høfuded af hønum.

10. Kongurenn svarade: Þer børn Zeru Ja, hvad hefi eg med ydur ad gera? láted hann bølva, þviad Drottinn baud hønum: bølva þú David. Hver þorer ad seigia: hvar fyrer gerer þú so?

11. Og David sagde til Abisai, og til allra sinna þenara: siá minn sonur, sá sem komenn er af mínu líse, stundar epter mínu líse, hvar fyrer skyllde nú eigi og so sonur Jemini (þad gera)? láted hann vera ad bølva, þviad Drottinn baud hønum þad.

12. Ske má, ad Drottinn álíte mína eymd, og umbune mer góðu fyrer hans þessa dags bølvan.

13. So geck David sína leid, og hans menn. Enn Simei geck med fiallshlídenne, jafnframt hønum, og blótade, og kastade grióte til hans, og kastade molldar hnausum.

14. Kongurenn kom inn, og aller þeir menn sem med hønum voru móder, og endurnærdu sig þar.

15. Enn Absalon, og allt fólk Israels manna kom til Jerusalem, og Achitophel med hønum.

16. Enn sem Husai Arachiter, vinur Davids, kom inn fyrer Absalon, þá sagde hann til Absalon: lucku fáe kongurenn! lucku fáe kongurenn!

17. Absalon svarade Husai: er þetta þín miskun, er þu veiter vini þínum? hvar fyrer ert þu eigi farenn med vini þínum?

18. Husai sagde til Absalon: eigi so, helldur, hvern sem Drottinn utvelur, og so þetta fólk, og so aller Israels menn, hans vil eg vera, og hiá hønum blifa.

19. Þar nærst, hverum skal eg þióna? skal eg eigi þióna hans syne? so sem eg þiónade fyrrum þínum fødur, so vil eg vera fyrer þer.

20. Þá sagde Absalon til Achitophel: gef út rád, hvad ver skulum adhafast.

21. Achitophel sagde til Absalon: sof hiá þínum fødurs frillum, þeim hann let her epter, ad geyma húsid. So skal allur Israel þad heyra, ad þú hefir gert þinn fødur illa luktande, og munu þá þess diarfare verda hendur þeirra allra er hiá þer eru.

22. Og þeir gerdu Absalon eina tialldbúd uppá þekinne, og Absalon lá hiá síns fødurs frillum, fyrer augum alls Israels.

23. Enn þá Achitophel gaf nockud rád út á þeim tíma, þá var þad so sem menn hefdu rádgast um vid Gud um nockud, so var øll Achitophels rádagerd, bæde hiá David, og so hiá Absalon.

## 17. Capitule.

1. Og Achitophel sagde til Absalon, eg vil útvelia tolf þusund manns, taka mig upp, og fara epter David í nótt.

2. Og eg vil yfersalla hann, á medann hann er mæddur og lúenn. Og þá eg skelfe hann so ad allt fólked, sem er hiá hønum, flyr, þá vil Eg slá kongenn alleina.

3. Enn leida allt fólked aptur til þín. Og þá hver einn madur er komenn til þín, epter þvi sem þú villt, þá verdur allt fólked med fride.

4. Þetta fyndest Absalon godt vera, og øllum þeim ellstu í Israel.

5. Og Absalon sagde: kallid Husai, þann Arachiter, og heyrum ver hvad hann seiger her til.

6. Og sem Husai kom fyrer Absalon, þá sagde Absalon til hans: soddann hefir Achitophel talad, seig

þú framm, skulum ver þetta gera edur ei?

7. Þá sagde Husai til Absalon: eigi er þetta godt rád sem Achitophel hefir útgefed ad þessu sinne.

8. Og Husai sagde framar meir: Þú þecker þinn fødur vel, og so hans menn, ad þeir eru sterker, og med beisskum huga, so sem ein byrna á mørkenne, þá hún er rænd sínum húnum. So og er þinn fader einn stríds-madur, og forsomar sig eigi med fólkenu.

9. Sió, ske má, ad hann hafe nú falest í einhveru hreise, edur í ein hverum ødrum stad. Og ef so sker, ad þetta tekst illa med fyrsta fyrer þer, og kæme rikte á, og segde: þar skede eitt slag á medal þess folks sem Absalon epterfylgde.

10. So mun þá þegar felmtra hverum manna, sem annars være gódur stríds-madur, og hefde hiarta sem Leon. Þvi allt Israels folk veit, ad þinn fader er sterkur, og fræger stríds-menn, sem med honum eru.

11. Enn þad ráðlegg eg, ad þú safner ad þer øllum Israel, frá Dan, og allt til Berseba, so morgum sem sand á siáfar strøndu, og ad þú far er siálfur med þeim.

12. So vilium ver falla yfer hann, hvar sem ver finnum hann, og ver vilium koma yfer hann, so sem þá døgg fellur á jørdu, so ver látum eigi einn lifa epter af þeim øllum mønnum sem med honum eru.

13. Enn ef hann safnast í eina borg, þá skal allur Israels múgur bera reip um þá sømu borg, og draga hana í ána, so þar skal eigi finnast einn steinn epter.

14. Þá svarade Absalon, og hver madur í Israel, ráð Husai Arachiters er betra enn Achitophels ráð. Enn Drottinn let þad so ske, ad Achitophels góðu ráð urdu hindrud, so ad Drottinn lete koma óluku yfer Absalon.

15. Og Husai mællte til Zadok, og Abiathar, kennemanna: so og so rádlagde Achitophel Absalon, og þeir enu ellstu af Israel, enn eg hefi so og so rádlagt.

16. Þar fyrer sended nú sem skiótast af stad, og láted David vita af þessu, og láted so seigia honum: vert þú eigi á þessare nótt á slettlende eydemerkur, helldur far þú yfer um, so ad kongurenn skule eigi uppsvelgiast, og allt fólked, sem er hiá honum.

17. Og Jonathan, og Achimaas stódu hiá þeim brunne rogel. Og ein ambátt geck þangad, og sagde þeim þetta, enn þeir fóru af stad, og kunngerdu þetta David konge, þvi þeir þordu eigi ad láta siá sig, ad þeir kæmu í stadinn.

18. Enn einn smásveinn sá þá, og hann undervísade þad Absalon. Enn þeir gengu báder sem skiótast í burt, og komu í eins manns hús í Bahurim, hann hafde einn brunn í sínum garde, og þar stigu þeir ofann í hann.

19. Enn kvinnann tók eitt klæde, og breidde yfer munnann á brunninum, og dreifde grionum þar yfer, so engenn skyllde þad merkia.

20. Enn sem Absalons menn komu til kvinnunnar í húsed, þá sogdu þeir: hvar er Achimaas og Jonathan? kvinnann sagde til þeirra: þeir gengu yfer um þad litla vatn. Enn þá þeir høfdu leitad, og eigi funded, þá fóru þeir aptur til Jerusalem.

21. Enn ad þeim burt gengnum, þá stigu þeir upp af brunnenum, gengu í burt, og kunngerdu þetta David konge, og sogdu til Davids,

takeð ydur upp, og fareð snarlega yfer um vatneð, þvi Achitophel hefir so og so gefeð út ráð mót ydur.

22. Þá reis David upp, og allt það folk sem var hiá hønum, og gengu yfer Jordan, inn til lyste af deige, og þar vantade eigi einn sem eigi var gengenn yfer um Jordan.

23. Enn sem Achitophel sá það, að hans ráð høfdu engann frammgang, þá sødlade hann sinn ásna, og bió sig, og fór heim i sinn stad, gerde skipan á sínu húse, og heingde sig, og dó, og var jardadur í síns føðurs grøf.

24. David kom til Mahanaim, og Absalon fór yfer Jordan, og aller Israels menn med hønum.

25. Absalon hafde sett Amasa í stad Joabs yfer Herenn. Enn Amasa var þess manns sonur sem het Jethra, einn Israelite, sem lá med Abigail, dottur Nahas, systur ZeruJa, sem var moder Joabs.

26. Og Israel og Absalon settu sínar herbuder í Gilead.

27. Og sem David var komenn í Mahanaim, þá færdi Sobi, sonur Nahas, af børnum Ammons, af Rabbath, og Machir, sonur Ammiel, af Lodabar, og Barsillai Giliaditer, af Roglim,

28. Sængarklæde, munnlaugar, leirpotta, hveite, bygg, miøl, steikt ax, bauner, ertur, grion,

29. Hunáng, smiør, saude, og naut, og osta, til Davids, og til þess folks sem med hønum var, til fædu, þvi þeir hugsudu, ad fólkeð munde líða hungur, mædu og þorsta í eydemørku.

## 18. Capitule.

1. Og David nidurskickade fólkeð, það sem med hønum var, og sette høfudsmenn yfer þusund, og yfer hundrad.

2. Og útsende þridia part af fólkenu under Joab, og enn þridia part under Abisai, ZeruJa syne, brodurs Joabs, og hinn þridia part under Jthai Gethiter. Og kongurenn sagde til folksins: eg vil og fara út med ydur.

3. Enn fólkeð svarade: þú skallt eigi útfara, þvi þó so se, ad ver flyum, eda falle helst af oss, þá munu þeir eigi hy. ða um oss, þvi þú einn ert sem tíu þusunder af oss. So er oss það þvi betra, ad þu veiter oss lid af borgenne.

4. Kongurenn svarade þeim: hvad ydur synest best fara, það vil eg gera. Kongurenn geck í borgarhlideð, og allt fólkeð fór út, hundrudum saman, og þusundum.

5. Og kongurenn baud Joab, og Abisai, og Jthai, og sagde: fareð minna vegna varlega med sveinenn Absalon. Og allt fólkeð heyrde það, ad kongurenn baud øllum høfudsmønnunum um Absalon.

6. Enn sem fólkeð kom út á vøllinna í móte Israel, þá hófst þegar bruslaun í skoge Ephraim.

7. Og Israels folk vard þar sleiged af Davids þenurum, so þar skede eitt stórt slag á þeim sama deige, tuttugu þusund manns.

8. Og bardagenn ridladest um allt landed, og skógurenn eiddi miklu fleyru fólke þann dag, helldur enn sverded ídel sló.

9. Og Absalon mætte Davids sveinum, og reid á einum múli. Enn sem múlenn kom under eina stóra og þicka eik, heck hans høfud í eikenne, og heck hann so á mille himens og jardar, enn hans múll rann framm undann hønum.

10. Þá það sá einn madur, kunngerde hann það Joab, og sagde: siá! eg sá Absalon hanga í einne eik.

11. Joab svarade mannenum,

sem honum sagde þetta, siá! sástu þetta, þvi slóstu hann þar þá eigi nidur til jardar, og skyllda eg hafa gefed þer tíu silfurpeninga minna vegna, og eitt bellte.

12. Madurenn svarade Joab: þó þú hefder veiged út í mína hønd þusund silfurpeninga, þá villde eg þó eigi hafa lagt mínar hendur á kongsins son. Þvi kongurenn band þer, og Abisai, og Jthai, oss áheyrondum, og sagde: vared ydur, ad engenn skade sveinenn Absalon,

13. Edur hefda eg nockud falskt gert uppá hættu sálar minnar, med þvi, ad ecke má leynt vera fyrer kongenum, þá munder siálfur þu hafe staded á móte mer.

14. Joab svarade: eigi má eg lengur tefia hiá þer. So þreif Joab þríu spiot í sína hønd, og stack þeim í hiarta Absalons, þá hann enn lifde í eikenne.

15. Og tíu Joabs skialldsveinar kringdu um Absalon, og slóu hann í hel.

16. Þá bles Joab í basunur, og heimte fólked aptur, ad þad skyllde eigi lengur reka flótta Jsraelis, þvi Joab villde hirma fólkenu.

17. Og þeir tóku Absalon, og køstudu honum í eina stóra gryfiu þar í skogenum, og gerdu mikenn griót haug upp af honum. So flydde allur Jsrael, hver til sinna heimkynna.

18. Absalon hafde uppreist ser einn stolpa þá hann nú lifde, hver ed stendur í kongsins dal, þvi hann sagde: eg á engann son, þar fyrer skal þetta vera til minningar mínu nafne. Og hann kallade þann stólpa epter sínu nafne, og hann kallast inn til þessa Absalons hønd.

19. Achimaas, sonur Zadoks, sagde: kære! lát mig hlaupa ad seigia kongenum: ad Drottinn hefir gert honum rett af sinna óvina hende.

20. Joab sagde til hans: þú ber honum engenn gód tídende í dag: annann dag skalltu tídendenn bera, enn ei í dag, þvi kongsins sonur er daudur.

21. Enn til Cusi sagde Joab: far þú, og seig kongenum hvad þú hefir sed. Og Cusi tilbad Joab, og rann af stad.

22. Achimaas, sonur Zadok, sagde þá í annad sinn til Joab: hvad, enn ef eg hleyp epter Cusi? Joab svarade: þvi villt þú hlaupa, minn sonur? kom hingad, þviad þú ber engenn gód tídinde. Hvad, enn ef eg hleyp?

23. Hann sagde til hans: hlaup þú. So hliop Achimaas strax (sinn) veg, og komst fyrr enn Cusi.

24. David sat í millum tveggia porta, og vardhallds madurenn geck uppá þaked portsins, vid múrenn, og upplypte sínum augum, og sá hvar einn madur hlióp alleina, og hann kallade til kongsins, og sagde honum þad.

25. Kongurenn sagde: ef hann er einn, þá munu vera gód tídende í hans munne: sá same geck og kom nær.

26. Þá sá vørdurenn einn annann mann hlaupanda, og hann kallade þegar ofann í ported, siá! einn madur hleypur alleina. Kongurenn svarade: þesse er og gódur sendebóde.

27. Vardhallds madurenn sagde: eg se hlaup þess hins fyrsta so sem hlaup Achimaas, sonar Zadoks. Og kongurenn sagde: hann er gódur madur, og mun bera gódann bódskap.

28. Achimaas kallade hátt, og sagde til kongsins: fridur! og hann tilbad fyrer kongenum á sína asiónu framm til jardar, og sagde:

blessadur se Drottinn þinn Gud, sem hefir gefed þá menn under þitt valld, sem ad upphófu sínar hendur ímóte mínum Herra konge.

29. Enn kongurenn sagde: gengur og so vel sveinenum Absalon? Achimaas svarade: eg sá os mikla, þá Joab kongsins þenare sende mig þinn þenara, og eigi veit eg hvad þad var.

30. Kongurenn sagde: gáck þú þangad um, og statt þar, og hann fór og stód þar.

31. Siá, þá kom Cusi, og sagde: gód tídende (ber eg) minn Herra kongur; Drottinn hefir gert þer rett í dag, frá hende allra þeirra sem sig settu upp í gegn þer.

32. Þá sagde kongurenn til Cusi: gengur og vel sveinenum Absalon? Cusi svarade: fare so aller míns Herra kongs óviner sem sá sveinn, og aller þeir sem setia sig upp ímóte þer, til hins vonda.

33. Þá vard kongurenn hriggur og geck uppá loptsalenn í portenu, grátande, og þar hann so geck, sagde hann so: minn sonur Absalon! minn sonur! minn sonur Absalon! Gud gæfe eg mætte deya fyrer þig, o Absalon! minn sonur! minn sonur! sonur Absalon! Absalon minn sonur! minn sonur!

## 19. Capitule.

1. Þetta frette Joab: siá! kongurenn grætur og syrger vegna Absalons.

2. So vard af sigre þess dags einn grátur á medal alls folksins, þviad fólked heyrde á þeim deige sagt: kongurenn harmar sinn son.

3. Og fólked stal ser undann á þeim deige, so þad kom eigi í borgena, eins líka og þá folk stelst í burt, hvert til skammar verdur, nær þad flyr úr bardaga.

4. Og kongurenn byrgde sitt andlit, kallade hárre røddu: avi! minn

5. Joab geck í húsed fyrer kongenn, og sagde: á þessum deige hefir þú kinnroda gert øllum þínum þenurum, þeir sem í dag frelsudu líf þitt, þinna sona, þinna dætra, þinna kvenna, og þinna frillna.

6. Ad þú elskar þá sem hata þig, enn hatar þá sem elska þig. Þviad í dag syner þú þad, ad eigi var hyrder þú um þína høfødsmenn og þenara. Þvi eg merke vel í dag hefde Absalon einnsamann lifad, enn ver værum aller dauder í dag, þá munde þer þad rett þykia.

7. Nú þá rís upp, og gack út, og tala blídlega vid þína þenara, þvi eg sver þer vid Drottinn, ganger þú eigi út, þá mun eigi einn madur vera hiá þer þessa nót í gegnum. Og þad verdur þer verra enn allt þad vonda sem ádur hefir komed yfer þig, frá þínum ungdome, og allt til þessa.

8. Þá reis kongurenn upp, og sette sig í vortid. Og þad var sagt fyrer øllu fólke: siá! kongurenn situr í portenu. Þá kom allt fólked fyrer konginn. Enn Israel var flúenn, hver til síns heimelis.

9. Og fólked af Israelis kinkvíslum þráttade sín á millum, og sagde: kongurenn hefir leyst oss af vorra óvina høndum, og frelsad oss af Philisteis høndum, og hann vard nu ad flya landed fyrer Absalon.

10. Og Absalon er fallenn í bardaga, hvern ver høfum smurt yfer oss, þvi erud þer þá nú so kirrer, ad þer leided eigi kongenn heim aptur.

11. Enn kongurenn sende til Zadoks og Abiathars kennemanna, og let seigia til þeirra: taled vid þá ellstu í Juda, og seiged: þvi viled þer vera þeir hiner seinustu ad leida

kongenn aptur í sitt hús? (þvi ord alls Israels voru kominn fyrer kongenn í hans hús).

12. Þer erud míner brædur, mín bein, og mitt holld, og þvi viled þer þá vera hiner seinustu, ad leida kongenn aptur?

13. Og seiged til Amasa: ert þú eigi mitt bein, og mitt holld; Gud láte mig ske þad og þad, ef þú skallt eigi vera minn hershofdinge hiá mer, alla þína daga í Joabs stad.

14. Og hann hneigde allra manna hiörtu í Juda, líka sem eins manns. Og þeir sendu af stad til kongsins; kom aptur, þú og aller þíner þenarar.

15. So kom kongurenn aptur. Enn sem hann kom ad Jordan, þá voru Juda menn komner í Gilgal, ad fara ofann í móts vid kongenn, so þeir flyttu kongenn yfer Jordan.

16. Og Simai, sonur Gera, sonar Jemini, sem bió í Bahurim, hann skundade ser, og fór med Juda mönnum ofann í mót David konge.

17. Og þar var þusund manns med hönum af Benjamin. Þar var sveinnenn Ziba, af húse Sauls, med sínum fimmtan sonum, og tuttugu þrælum, og þeir flyttu ser yfer Jordan, framm fyrer kongenn,

18. Og tilreiddu feriur, ad færa kongsins folk yfer um, og þeir gerdu þad hvad hönum þocknadest. Og Simei, sonur Gera, fell nidur fyrer kongenn, þá hann fór yfer Jordan.

19. Og sagde til kongsins: minn Herra! reikna mer eigi til þennann misgerning, og minnstu eigi á þad ad þinn þenare syndgde þig, þann dag þá minn Herra kongurenn geck af Jerusalem, og kongurenn legge þad eigi á hiarta.

20. Þvi Eg þinn þenare medkenner, ad eg hefe misgert. Og siá! eg em í dag sá fyrste sem komenn er af öllu Josephs húse, ad fara ofann á móte mínum Herra kongenum.

21. Enn Abisai, sonur ZeruJa, svarade og sagde: og skyllde eigi Simei þar fyrer deya, sem þó bölvad hefir þeim smurda Drottins?

22. Þá svarade David: hvad hefi eg med ydur, þer börn ZeruJe, ad þer viled í dag verda mer ad sathan? skyllde nockur madur á þessum deige láta sitt líf í Israel? eda meinar þú, ad eg vite eigi, ad eg em ordenn kongur í dag yfer Israel?

23. Og kongurenn sagde til Simei: eigi skalltu deya. Og þar uppá sór kongurenn hönum.

24. MephiBoseth, sonur Sauls, kom og so ofann í móte kongenum. Hann hafde eigi hreinsad sínar fætur, ne sitt skegg, og eigi þveiged sín klæde, frá þeim deige sem kongurenn hafde í burtu genged, og allt til þess dags sem hann kom nú aptur med fride.

25. Og sem hann nú kom til Jerusalem, ad mæta kongenum, þá sagde kongurenn til hans: hvad kom þar til ad þú fórst eigi med mer, MephiBoseth?

26. Hann svarade: minn Herra kongur, minn þenare þeinkte, eg vil södla einn asna mer til reidar, og fara so til kongsins, þvi þinn þenare er fótahrumur.

27. Ofann á þetta bar hann þinn þenara í róg vid minn Herra konginn. Enn minn Herra kongur er so sem Guds eingell. Ger hvad þer synest,

28. Þvi allt mitt födurs hús var eigi annad enn dauda folk fyrer mínum Herra kongenum, so hefir þú sett þinn þenara á medal þeirra sem eta af þínu borde, hver rettinde hefi eg framar meir, edur hvad má eg hrópa framar til kongsins?

29. Kongurenn sagde til hans:

hvad villtu meira tala um þin efne? eg hefe þad sagt, Þú og Ziba skulud skipta økrønum ydar á millum.

30. Mephiboseth sagde til kongsins: hann má taka þad alltsaman, fyrst ad minn Herra kongurenn er heim komenn med fride.

31. Og Barsillai af Gilead kom ofann frá Roglim, og flútte kongenn yfer Jordan, so ad hann vísade hønum veg í Jordan.

32. Barsillai var miøg hnígenn á efra alldur, vel áttrædur, hann forsorgade kongenn þá stund sem hann var í Mahanaim, þvi hann var einn miøg mikels háttar madur.

33. Og kongurenn sagde til Barsillai: þú skallt fara her yferum med mer, eg vil forsorga þig hiá mer í Jerusalem.

34. Enn Barsillai sagde til kongsins: hvad er epter af alldre mínum, ad eg skyllde fara upp med kongenum til Jerusalem?

35. Eg em í dag áttatíu ára gamall, hvernenn skyllde eg greina hvad godt edur illt er, edur ad smacka hvad eg et eda dreck, edur heyra hvad saungmenn edur saungkvinnur syngia, hvar fyrer skal þinn þenare vera lengur til þyngsla mínum Herra konge?

36. Þinn þenare skal ganga med kongenum skammt yfer um Jordan, hvar fyrer vill kongurenn veita mer slík laun?

37. Lát þinn þenara snúa aptur, so ad eg meige deya í mínum stad, hiá grof míns fødurs og minnar modur. Siá, þar er þinn þenare Chimeham, lát hann fara yferum med mínum Herra kongenum, og gerdu vid hann hvad þer vel líkar.

38. Kongurenn sagde: Chimeham skal fara med mer yferum, og eg vil gera vid hann hvad þer líkar, og allt þad sem þú gyrnest af mer, vil eg gera þer.

39. Og þá allt fólked var komed yfer Jordan, og kongurenn med, þá kysste kongurenn Barsillai, og blessade hann, og hann hvarf aptur í sinn stad.

40. Og kongurenn fór yferum til Gilgal, og Chimeham fór med hønum. Og allt Juda folk hafde fært kongenn yferum: enn af Israels fólke var þar eigi nema helmingur.

41. Og siá, þá komu aller Israels menn til kongsins, og søgdu til hans: hvar fyrer hafa vorer brædur, menn Juda, stoled þer, og hafa fært kongenn, og hans hús yferum Jordan, og alla Davids menn med hønum?

42. Þá svørudu þeir af Juda þeim af Israel: kongurenn er oss nákeniu, þvi erud þer þá reider um þetta? eda meined þer, ad ver munum hafa þeiged vister eda giafer af kongenum?

43. Þá svørudu þeir af Israel þeim af Juda, og søgdu: ver høfum tíu hlute meir til ad telia vid kongenn, og so vid David, enn þer. Þvi hefir þú so óvirdt mig? var þad eigi mitt ord í fyrstu ad sækia vorn kong aptur? enn þeir af Juda tøludu hardligar helldur enn þeir af Israel.

## 20. Capitule.

1. Og þar var þá vid einn nafnkunnugur illur madur, hann het Seba, sonur Bichri, eins manns af Jemini: hann bles í basunur, og sagde: ver høfum ecke hlutskipte af David, edur arf í syne Isai. Fare hver til sinna Hybila, o Israel!

2. Þá fell hver madur í Israel frá David, og epterfylgde Seba, syni Bichri. Enn Juda menn helldu

ser vid sinn kong, frá Jordan og allt til Jerusalem.

3. Enn sem David kongur kom heim til Jerusalem, þá tók hann sín ar tíu frillur, sem hann hafde epterláted ad gæta herbergia, og hann sette þær í vardhalld, og feck þeim atvinnu, enn hann svaf eigi med þeim. Og þær voru so inneluktar allt til síns dauda dags, og lifdu ekiulíse.

4. Og kongurenn sagde til Amasa: kalla þú á alla menn Juda uppá hinn þridia dag; þú skallt og standa her.

5. Og Amasa geck af stad, og kallade Juda tilsamans, enn hann tafde-yfer þann tíma sem hann sette hønum fyrer.

6. Þá sagde David til Abisai: nú mun Seba, sonur Bichri, gera oss meire sorg enn Absalon. Tak þú þíns Herra þenara, og far epter hønum, so ad hann eigi finne nockurstadar fastar borger fyrer ser, og sete undann vorre augsyn.

7. Þá fóru Joabs menn út epter hønum, þarmed þeir Crethi og Plethi, og aller hiner hraustustu menn. Og þeir fóru út af Jerusalem, ad veita epterfør Seba, syne Bichri.

8. Enn sem þeir voru hiá þeim stóra steine í Gibeon, þá kom Amasa framm á (veiginn) fyrer þá. Joab hafde gyrdt sig yfer sín klæde, sem hann var í, og var gyrdur saxe þar utann yfer, þad heck á hans lære í bale, og var laust í slídrum.

9. Þá sagde Joab til Amasa: fridur med þer, minn broder! Joab tók í skegg Amasa med sinne hægre hende, ad hann villde kyssa hann.

10. Enn Amasa gaf eige gætur ad sverdenu í Joabs hende. Og hann stack hanu med þvi í kvidinn, so hans innisle fellu á jørdena, og hann stack hann eigi framar, og hann let sitt líf. Enn Joab og hans broder Abisai soktu epter Seba, syne Bichri.

11. Og þar stod einn af Joabs sveinum hiá hønum, og sagde: hver sem helldur med Joab, og med David, sá fylge Joab?

12. Enn Amasa lá velltur í blóde midt á veigenum. Enn sem einn (madur) sá þad, ad allt fólked nam þar stadar, þá vek hann Amasa af veigenum, út á akurenn, og breidde klæde yfer hann, þviad hann sá, ad hver madur, sem kom ad hønum, þá nam hann stadar.

13. Nú sem hann var tekenn af veigenum, þá fylgde hver madur epter Joab, ad sækia epter Seba, syne Bichri.

14. Og hann fór í gegnum allar kinkvísler Israelis, til Abel, og Beth Maacha, og um allt Haberim, og þeir heimtust samann og fylgdu hønum epter.

15. Þeir komu, og settust um hann í Abel, og Beth Maacha, og þeir hlódu einn gard umhverfis borgena, og gáfu sig ad múrnum, og allt fólked sem var med Joab stormade, og villde brióta nidur múrenn.

16. Þá kallade ein vís kvinna út af stadnum: heyred! heyred! seiged Joab, ad hann kome her nær; eg vil tala vid hann.

17. Og sem hann kom til hennar, þá sagde kvinnann: ert þú Joab? hann sagde: já. Hún sagde til hans: heyr ord þinnar þenustu kvinnu. Hann sagde: eg heyre.

18. Hún svarade: fordum tíd søgdu menn, hver sem spyria vill, hanu spyre í Abel, og þá geck þad vel til.

19. Eg em ein af þeim fridsamlegu og trulyndu borgum í Israel, og þú villt í helslá borgena og moder-

ena í Israel, hvar fyrer villtu uppsvelgia arfleifd Drottins?

20. Joab svarade og sagde: langt se frá þvi, þad se langt frá mer, ad eg vile uppsvelgia og eydeleggia, þvi er eigi so háttad.

21. Helldur er þar einn madur af Ephraims fialle, sem heiter Seba, sonur Bichri, hann hefir reist sig upp í móte David konge, seled hann einn framm hingad, þá vil eg fara frá borgenne. Kvinnann svarade Joab: siá! hans høfud skal kastast til þín út yfer múrenn.

22. Kvinnann kom inn til alls folksins med sínum vísdøme, og þeir hiuggu høfuded af Seba, syne Bichri, og fleingdu þvi til Joabs. Þá bles hann í basunur, og þeir dreifdu ser frá stadnum, hver til síns heimilis. Enn Joab kom aptur í Jerusalem til kongsins.

23. Og Joab var yfer øllum Israels Her. Benaja, sonur Jojada, var yfer þeim Crethi og Plethi.

24. Adoram var rentumeistare. Josaphat, sonur Ahiluds, var Cantzeler.

25. Seia var skrifare. Zadoch og Abjathar voru kennemenn.

26. Þar ad auk var Ira Jairiter Davids ypparste.

## 21. Capitule.

1. Þar var og eitt hallære á døgum Davids í þriu samfelld ár. Og David vitiade andlits Drottins. Og Drottinn sagde: fyrer søkum Sauls, og fyrer þess blódhúsens, ad hann íhel sló þá Gibeonita.

2. Þá let kongurenn kalla til sín þá Gibeonita, og sagde til þeirra: (enn þeir Gibeonitar voru eigi af Israels børnum, helldur voru þeir epterleifar af Amoritum. Enn Israels børn høfdu svared þeim, og Saul sókte epter ad slá þá íhel, í sínu vandlæte, vegna Israels og Juda barna).

3. So sagde nú David til þeirra Gibeonita: hvad skal eg gera ydur? og hvar med skal eg þad forlíka, ad þer viled blessa Drottins arfleifd?

4. Gibeonitar søgdu til hans: þad er oss eigi um gull ne silfur ad gera, í gegn Saul og hans húse, og eigi helldur er vor gáningur ad nockur madur se drepenn af Israel. Hann sagde: hvad seiged þer þá ad eg skule gera ydur?

5. Þeir svorndu kongenum: sá madur sem oss fordiarfade, og ad engu gerde, þann vilium ver afmá, ad ecke verde honum epter í øllum Israels landamerkium.

6. Gefed oss sio menn af hans húse, so ver meigum uppheingia þá fyrer Drottne, í Gibea Sauls, sem Drottinn útvalde. Kongurenn sagde: eg vil gefa ydur þá.

7. Enn kongurenn þirmde Mephiboseth, syne Jonathan, sonar Sauls, søkum þess svardaga Drottins, sem var í millum þeirra David og Jonathan, sonar Sauls.

8. Enn þá tvo sonu sem Rizpa, dotter Aia, hafde fædt Saul, Armoni og Mephi Boseth, þar til fimm sonu Michol dottur Sauls, sem hún hafde fædt Adriel, syne Barsillai af Mahaloth, tók kongurenn,

9. Og gaf í þeirra Gibeonita hendur. Og þeir heingdu þá upp á fiallenu fyrer Drottne. So fellu þeir sio í einu, og dóu í øndverdum kornskurdar tíma, þá menn tóku til ad skera upp bygg.

10. Þá tók Rizpa, dotter Aia, eitt hárklæde, og breidde yfer biarged, í øndverdum kornskurdenum, þar til ad vatn draup af himne yfer þá, og eigi let hún fugla loptsins setiast á þá um daga, og eigi helldur dyr á mørkenne um nætur.

11. Og David feck ad vita hvad Rizpa, dotter Aia, frilla Sauls, hafde gert.

12. Og David fór og tók bein Sauls, og bein Jonathan, hans sonar, af borgsbrunum í Jabes, í Gilead (sem þeir höfdu stolid af Bethsan stræte, þar sem Philistearner festu þá upp, á þeim tíma þá Philistearner slóu Saul í hel á fiallenu Gilboa).

13. Og han flútte þau upp þadann, og safnade þeim öllum samann vid bein þeirra sem heingder voru,

14. Og þeir jordudu bein Sauls, og bein hans sonar Jonathan, í Benjamins lande, til Zela, í gröf hans födurs Kis, og þeir gerdu allt so sem kongurenn baud. Og so vard Gud tilfrids vid landed þar epter.

15. Philistei efldu enn ófrid í móte Israel. Og David fór ofann, og hans þenarar med hönum, og bördust vid Philisteos. Og David vard módur.

16. Og Jesbi af Nob (hver ed var einn af Rapha börnum, hvers spiot ad vo þríu hundrud punda kopars, og hann hafde ny vopn) hann ætlade ad drepa David.

17. Enn Abisai, sonur ZeruJa, hiálpade hönum, og drap þann Philisteum. Þá sóru Davids menn hönum, og sögdu: eigi skalltu hedann í frá ganga med oss í bardaga, ad ei út slökne lios í Israel.

18. Enn epter þetta uppbiriadest einn bardage í Nob vid Philisteos. Þar sló Sibechai af Husath Saph, hver og ad einn var af börnum Rapha.

19. Og þar hófst enn bardage í Gob vid Philisteos, í hverium Elhanan, sonur Jaere Orgim, af Bethlehem, sló Goliath Gethiter, sem hafde eitt spiot, hvers skapt var sem vefiar rifur.

20. Og þar hófst bardage í Gath, þar var einn hár madur, sem hafde sex fingur á sínum höndum, og sex tær á hverum sínum fæte, þad eru fiorer og tuttugu ad tölu, hann var og fæddur af Rapha.

21. Og þá hann talade hædelega vid Israel, þá sló Jonathan hann, sonur Simea, brodurs Davids.

22. Þesser aller fiorer voru fædder Rapha í Gath, og fellu fyrer David og hans þenara höndum.

## 22. Capitule.

1. Og David talade ordenn þessa loffaungs fyrer Drottni, þann tíma þá Drottinn hafde frelsad hann af hende allra hans óvina, og af hende Sauls og mællte.

2. Drottinn er mitt biarg, og mitt slot, og minn hiálpare.

3. Gud er minn styrkur, á hvern eg true, minn skiölldur og horn minnar heilsu, minn verndare og mitt athvarf, minn frelsare, þú sem hiálpar mer frá ofbelldenu.

4. Eg vil lofa og ákalla Drottinn, so verd eg frelsadur frá mínum óvinum.

5. Þviad daudans bylgur höfdu spennt mig, og Belials becker skelfdu mig.

6. Helvítis bönd höfdu umspennt mig, og daudans snörur voru fallnar yfer mig.

7. Þá mer er angursamt, kalla eg á Drottinn, og hrópa til míns Guds so heyrer hann mína raustu af sínu mustere, og mitt kall kemur fyrer hann til hans eyrna.

8. Jördenn bifadest, og hrærdest, himensins grundvöllur hristest og bifadest, þá hann var reidur.

9. Þar geck reykur upp af hans

nøsum, og fortærande elldur af hans munne, so ad þar af leiptrade.

10. Hann beygde himnana, og fór ofann, og þar var mirkur under hans fótum.

11. Og hann fór á Cherub, og flaug þadann, og hann sveimade á vængium vindsins.

12. Hans tialld umhverfis hann var mirkur, og svart þickt ský.

13. Af birtunne fyrer hønum brann med elldingu.

14. Drottinn dunade af himnenum, og sá allrahæste let út sínar reidarþrumur.

15. Hann skaut sínum pílum, og sundurdreifde þeim; hann let elldingar koma og hræda þá.

16. Þá sáu menn vatnsgusurnar, og jardarennar grundveller opnudust, af straffe Drottins, af andanum, og snysingum hans nasa.

17. Hann sende út af hædum ad sækia mig, og hann dró mig ut af miklum vøtnum.

18. Hann frelsade mig frá mínum sterkum óvinum, og frá þeim sem mig høtudu, og mer yfersterkare voru.

19. Þeir mig yferfellu í minne mótgángs tíd, og Drottinn var mitt trúnadar traust.

20. Hann færde mig út þar sem rúmt var um; hann rickte mer í kurtu, þviad hann hafde þocknan á mer.

21. Drottinn gerer vel vid mig epter minne rettvíse, hann bitalar mer epter hreinkleika minna handa.

22. Þvi eg helld Drottins vegu, og er eigi ógudlegur imóte mínum Gude.

23. Þvi eg hefe alla hans dóma mer fyrer augum, og eg kasta eigi hans bodordum frá mer.

24. Helldur em eg flecklaus fyrer hønum, og eg vakta mig fyrer syndenne.

25. Þar fyrer launar Drottinn mer epter minne rettvíse, epter mínum hreinleika fyrer hans augum.

26. Hiá þeim heiløgu ertu heilagur, hiá þeim gódu ert þú gódur,

27. Hiá þeim hreinu ertu hreinn, og hiá þeim þversnunu ertu þversnuenn.

28. Þvi þú hiálpar þvi fátæka fólke, og med þínum augum nidurþricker þú þá háfu.

29. Þvi þú Drottinn ert mitt liós; Drottinn upplýser mín mirkur.

30. Þvi med þer kann eg í gøgnum ad ganga hermanna fylkingar, og med mínum Gude kann eg ad støcka yfer múrenn.

31. Guds veiger eru flecklauser, mál Drottins er reynt vid elldinn, hann er skiølldur allra þeirra sem á hann treysta.

32. Þvi hver er Gud utann Drottinn? og hver er hiálp utann vor Gud.

33. Gud stirker mig med krapte, og vísar mer á einn flecklausann veg.

34. Hann gerer mínar fætur so sem hiartar (fætur) og setur mig á mína hæd.

35. Hann kenner mínum høndum ad beriast, og hann lærer mína arma ad spenna stálbogann.

36. Og þú gefir mer þinn hiálprædis skiølld, og þá þú audmyker mig, þá gerer þú mig stórann.

37. Þú gerer under mer nóg gángrum, so ad míner hælar skridne eigi.

38. Eg vil veita mínum óvinum eptersør, og eydeleggia þá, og eigi aptur snúa fyrr enn eg hefi gert þá ad engu.

39. Eg vil fyrerkoma þeim og í sundurmølva þá, og þeir skulu eigi standa mer í móte, þeir munu falla under mínar fætur.

40. Þú kannt ad brynia mig med stirkleika í bardaga, þú kannt ad kasta þeim under mig, sem setia sig upp í móte mer.

41. Þú gefur mer mína óvine á flótta, so eg eydelegge þá sem mig hata.

42. Þeir hallda sig af hiarta til, enn þar er engenn sem hiálpar, til Drottins, enn hann svarar þeim eigi.

43. Eg vil melia þá, so sem dupt á jørdunne, eg vil gera þá ad ryke, og sundurdreifa þeim so sem ødrum gatna saur.

44. Þu hiálpar mer frá þvi þrætugiarna fólke, og vardveiter mig til eins høfuds á medal heidingianna; eitt folk, sem eg þecke eigi, þiónar mer.

45. Þad hefir brugdest annarlegum børnum móte mer, og þeir hlyda mer med hlydnum eyrum.

46. Þau annarlegú børn eru ad þrotum komenn og vafenn í þeirra bøndum.

47. Drottinn lifer, og lofadur verde minn stirkur, og Gud stirkur míns hiálprædis skal upphefiast.

48. Gud sem gefur mer hefndena, og fleyger fólkenu under mig.

49. Hann hiálpar mer frá mínum óvinum; þú upphefur mig frá þeim, sem settu sig imóte mer, þú hiálpar mer frá þeim illgiornu.

50. Þar fyrer vil eg þacka þer Drottinn, á medal heidingianna, og þínu nafne lofsyngia.

51. Sá ed audsyner sínum konge stórt hiálpræde, og gerer vel vid sinn smurda David, og vid hans sæde æfinnlega.

## 23. Capitule.

1. Þesse eru þau sídustu Davids ord. Þad sagde David sonur Isai, þad sagde sá madur sem upphafenn er til ad vera smurdur Jacobs Guds, lystelegur med Israels psálmum.

2. Ande Drottins talade fyrer mig, og hans ord eru sked fyrer mína tungu.

3. Gud Israels sagde til mín: sá sterke Israels talade; sá rettferduge stiornare á medal mannanna, sá stiornare í Guds ótta.

4. Og líka sem lioséd er um morgnana, nær solenn gengur upp um morgunenn, án skya, þar sem grased ver á jørdunne, af skine epter regned.

5. Þvi mitt hús er eigi so hiá Gude, þvi hann sette mer einn sáttmála, sem er eylífur, og í allann máta vel skickadur, og vardveittur, þvi øll mín hiálp og gerningur er þad, þó ad ecke ver.

6. Enn Belial eru allersamann sem útkastader þistlar, hverir kunnu eigi ad takast med høndunum,

7. Helldur, hver sem taka skal á þeim, hann má hafa járn og spiotskapt í hende, og þeir skulu uppbrennast med ellde í þeirra heimilum.

8. Þesse eru nøfn Davids kappa, Jesabeam, sonur Hachmoni, sá ypparste á medal þriggia; hann upplypte sínu spiote, og drap átta hundrud á einum tíma.

9. Nærst hønum var Eleasar, sonur Dodo, sonar Ahóhi, medal þeirra þriggia kappa hiá David; þann tíma þeir brigsludu Philisteis, og voru þar samankomner til bardaga, og Israelis menn fóru upp,

10. Þá stód hann, og sló Philisteos, so leinge, ad hans hønd þreyttest og stirdnade ad sverdenu. Og Drottinn gaf eina mikla hiálp á þeim tíma, so ad fólked snere aptur, epter hønum ad ræna.

11. Næst honum var Samma, sonur Age Harariters. Þá Philistei søfnudust samann í nockru þorpe, þá var þar einn akur fullur hirsgribna, og þá fólked flyde fyrer Philisteum.

12. Þá geck hann framm midt á akurenn, og frelsade þá, og sló Philisteos, og Gud gaf eina mikla hiálp.

13. Og þesser þrír yppurstu, á medal þriátíu, komu ofann til Davids, um korunskurdar tíma, í þann heller Adullam, enn mannsøfnudur þeirra Philistinorum lá í Raphaim dal.

14. Og David var á þeim tíma í nockru virke. Enn folk þeirra Philistea lá í Bethlehem.

15. Og David feck lysting, og sagde: hver vill sækia mer vatn ad drecka af þeim brunne í Bethlehem under borgarhlidenu.

16. Þá brutust þeir þrír kappar í gegnum Philisteanna herbúder, og jusu vatned af brunnenum, þeim sem var í Bethlehem, under portenu, og þeir báru, og færdu David þad, enn hann villde eigi drecka þad, helldur hellte hann því út fyrer Drottni,

17. Og sagde: Drottinn forde mer ad eg skyllde þad gera. Er þad eigi þeirra manna blod, sem settu sig í lífsháska, og geingu þangad? og hann villde eigi drecka þad. Þetta gerdu þeir þrír kappar.

18. Abisai, Joabs broder, sonur Zeru Ja; hann var og ypparstur á medal þriggia. Hann upplypte sínu spióte, og sló þríu hundrud, hann var og nafnkunnugur á medal þriggia.

19. Og sá enn dyrdlegaste á millum þeirra þriggia, og var þeirra ypparstur. Enn hann var þó eigi jafn vid hina þriá.

20. Benaja, sonur Jojada, sonar Isbails, var mikell í gerningum, af Kabzeel, hann drap tvo Moabs Leon, og hann geck nidur, og drap eitt Leon í einum brunne á sniótíma.

21. Hann drap og einn hrædelegann Egyptskann mann, hver ed hafde eitt spiot í sinne hende, enn hann geck ofann til hans med staf, og kippte spiotenu af þess Egyptska hende, og drap hann med hans eigenn spiote,

22. Þad gerde Benaja, sonur Jojada,

23. Og hann var allfrægur á millum þeirra þriggia kappa, og ágætare enn þeir þriátíu, enn eigi kom hann til jafns vid þá þriá. Og David gerde hann sitt heimulegt rád.

24. Asahel, broder Joabs, er á medal þeirra þriátíu. Elhanan, sonur Dodo, af Bethlehem.

25. Samma Haraditer. Elika Haraditer.

26. Heletz Paltiter, Ira, sonur Ikes, Thekoiter.

27. Abieser Anthothiter. Mebunai Husathiter.

28. Zalmon Ahohiter. Maherari Nethophathiter.

29. Heleb, sonur Baena, Nethophathiters. Ithai, sonur Ribai, af Benjamins børnum í Gibea.

30. Benaja Pirgathoniter. Hidai af læk Gaas.

31. Abialbon Arbathiter. Asmaveth Barhumiter.

32. Eliaheba, Saalbonither, Børn Jasens og Jonathan.

33. Samma Harariter. Ahiam, sonur Sarar Harariters.

34. Eliphelet, sonur Ahasbai, sonar Maechati. Eliam, sonur Achitophel Giloniter.

35. Hezrai Carmeliter. Paerai Arbiter.

36. Jigal, sonur Nathan af Zo-
ba. Bani Gaditer.
37. Zeleg Ammoniter. Naharai
Beerothiter, skialldsveinn Joabs,
sonar ZeruJa.
38. Ira Jethriter. Garab Je-
thriter.
39. Uria Hethiter. Þesser aller
samann eru siø og þrátíu.

## 24. Capitule.

1. Og Drottins reide gramdest
enn yfer Israel, og hann ørvade
David upp á medal þeirra, so hann
sagde: far þú og tel Israel og Juda.
2. Og kongurenn sagde til Jo-
abs síns strídshøfudsmanns: gack
um medal allra kynkvíslaIsraelis,
fráDan og til BerSeba,og tel fólk-
ed, so eg meige vita hversu margt
þad er.
3. Þá sagde Joab til kongsins:
Drottinn Gud þinn auke vid þetta
folk, so sem þad er nú, enn hund-
radsinnum so miked, ad minn Her-
ra kongurenn meige siá sínna aug-
na lyst þar á, enn hvada lyst hefir
minnHerra kongurenn á slíku efne?
4. Enn kongsins ord geck framm
í móte Joab og hershøfdingiunum.
So fór Joab og høfudsmennerner
hersins út frá kongenum, ad telia
Israelis folk.
5. Og þeir gengu yferJordan, og
settu sínar tialldbúder í Aroer, hæg-
rameigenn hiá stadnum sem liggur
í Gads læk, og til Jaeser.
6. Og komu til Gilead, og ofann
í landed hiáHadsi, og komu tilDan
Jaan, og umkring Zidon.
7. Og komu til þess fasta stadar
Tyro, og til allra borga Hevita, og
Cananita, og komu sudur út mót
Juda til BerSeba.
8. Og fóru kringum allt landed,
og komu til Jerusalem, ad lidnum
níu mánudum, og tuttugu døgum.
9. Og Joab feck kongenum tølu
alls folksins, þad sem taled var,
og þar voru í Israel áttasinnum
hundrad þusunder sterkra manna,
sem út drógu sverd, og afJuda fimm-
sinnum hundrad þusund manns.
10. Og David sló hans eiged
hiarta, þá fólked var taled. Og
David sagde til Drottins: þungle-
ga hefi eg syndgast, ad eg hefi þvi-
líkt gert. Og nú Drottinn, tak burt
ránglæte þíns þenara, þvi eg gerde
miøg óviturlega.
11. Nú sem David stód upp um
morguninn, þá kom ord Drottins
til Gad spámanns, hver ed var siá-
ande Davids, og sagde.
12. Far og seig so til Davids, so
seiger Drottinn: eg set fyrer þig
þrennt; kiss þú eitt af þeim, hvad
eg gere þer.
13. Gad kom til Davids, og und-
ervísade hønum þad, og sagde til
hans: villt þú ad þar kome hallære
í þitt land, í siø ár? eda ad þú verd-
er farflotta fyrer þínum óvinum
þriá mánude, og ad þeir sæke epter
þer? eda ad þar se þriggia daga
drepsótt í þínu lande? so athuga
þá nú og siá, hvad eg meige seigia
þeim aptur sem mig sende.
14. David sagde til Gad: miøg
þreyngiunst eg. Enn látum oss fal-
la í hendur Drottins (þvi hans
miskunsemi er stór) eg vil eigi falla
í mannanna hendur.
15. So sende Drottinn drepsótt
í Israel, frá morgne og inn til á-
setts tíma, so ad þar dóu af fólkenu,
fráDan og tilBerSeba, siøtíu þus-
under manna,
16. Og sem engellenn útrette
sína hønd yfer Jerusalem, ad for-
diarfa hana, þá angrade Drottinn
þá hørmung, og sagde til engel-
sins: þess sem fordiarfade fólked:
þad nægest; halltu nú þinne hende

af. Enn Drottins engell var þá hiá láfagarde Arafna Jebusiters.

17. Enn sem David sá engelinn þann sem sló fólked, þá sagde hann til Drottins: siá! eg hefe syndgast, eg hefe gert þann misgerning, hvad hafa þesser sauder gert? lát þína hønd vera á móte mer og míns fødurs húse.

18. Og á þeirre sømu stundu kom Gad til Davids, og sagde til hans: far upp og ger Drottne alltare í lafagarde Arafna Jebusiters.

19. So geck David upp, so sem Gad hafde sagt, og Drottinn hafde boded.

20. Og sem Arafna leit vid, sá hann, ad kongurenn kom til sín med sínum þenorum, og hann tilbad framm á sitt andlit til jardar, og sagde:

21. Þvi kemur minn Herra kongurenn til síns þenara? David svarade: til þess, ad kaupa þinn lafagard ad þer, og gera Drottni eitt alltare, so ad þesse plága mætte linna af fólkenu.

22. Arafna sagde til Davids: minn Herra kongur take og fornfære so sem hann vill. Siá! þar er uxenn til brennefórnar, og sledenn, og reidenn uxans, til ad heimta elldevidenn.

23. Og Arafna kongur gaf kongenum allt. Og Arafna sagde til kongsins: Drottinn þinn Gud láte þig vera ser þacknæmelegann.

24. Enn kongurenn sagde til Arafna: eigi so, helldur vil eg kaupa þad af þer fyrer mína peninga, þviad eg vil eigi fæformer Drottni mínum Gude brennefórner af þvi sem eg þigg gefins. Sídann keypte David láfagardenn, og uxann, fyrer fimmtíu siklos silfurs.

25. Og hann reiste Drottne þar eitt alltare, og færde brennefórner og þacklætisfórner, og Drottinn vard sáttur vid landed, og plágunne linnte af Israels fólke.

Ender þeirrar aunarar Samuelis bókar.

# Fyrsta Bok Konganna.

## I. Capitule.

1. Og sem David kongur gerdest nú gamall og vel alldradur, kunne hann eigi ad hitna, enn þott hann være føtum þakenn.

2. Þá søgdu hans þenarar til hans: láted þá leita handa mínum Herra kongenum ad stulku nockorre, sem ad er jungfrú, ad hún stande fyrer kongenum, og þióne hønum, og sofe í hans fadme, og verme minn Herra kongenn.

3. Og þeir leitudu í øllum Israels landamerkium, epter fridre meyu, og fundu Abisag af Sunem, og leiddu hana fyrer kongenn.

4. Og hún var miøg væn jungfrú, og hún ól ønn fyrer kongenum, og þiónade hønum. Enn kongurenn kennde hana eigi.

5. Enn Adonia, sonur Hagith, sette sig upp, og sagde: eg vil vera kongur. Og hann tilreidde ser vagna, og riddara, og fimmtíu menn til hirdmanna fyrer ser.

6. Enn hans fader villde eigi hryggia hann í sinne tíd, so hann

segde: Þvi gerer Þú so? hann var og miøg fridur madur, og hann hafde geted hann nærst epter Absalon.

7. Og hann hafde sína rádagerd med Joab, syne ZeruJa, og med AbJathar preste; Þeir hiálpudu Adonia.

8. Enn Zadok kennemadur, og Benaja, sonur Jojada, og Nathan spámadur, og Simei, og Rei, og Davids kappar, voru eigi med Adonia.

9. Og Þá Adonia offrade nautum og saudum, og feitu fe, hiá Soheleth steine, hver ed liggur hiá Þeim brunne Rogel, Þá baud hann øllum sínum brædrum kongsins sonum, og øllum mønnum í Juda, kongsins Þenørum, Þar til.

10. Enn spámannenum Nathan, og Benaja, og koppunum, og Salomon sínum brodur, baud hann eigi.

11. Þá sagde Nathan til Ber Sabee Salomons modur, hefir Þú eigi heyrt, ad Adonia, sonur Hagith, er ordenn kongur, enn vor Herra David veit Þar eigi af?

12. So kom nú, og vil eg gefa Þer eitt ráð, so Þú frelser Þína sál, og so Salomonis sál Þíns sonar.

13. Gáck af stad og inn fyrer kongenn David, og seig Þú til hans: minn Herra kongur! hefir Þú eigi svared Þinne Þiónustu kvinnu, og sagt: Þinn sonur Salomon skal vera kongur epter mig, og hann skal sitia á mínum stóli? Þvi er Þá Adonia ordenn kongur?

14. Siá! á medann Þú ert enn Þar, og talar vid kongenn, Þá vil eg koma Þangad epter Þer, og fullkomlega úttala Þín ord.

15. Og BerSabee geck inn fyrer kongenn í herberged, og kongurenn var miøg gamall, enn Abisag af Sunem Þiónade kongenum.

16. Og BerSabee hneigde sig, og tilbad kongenn. Kongurenn sagde Þá: hvad er Þer?

17. Enn hun sagde til hans: minn Herra, Þú hefir svared Þinne Þiónustu kvinnu vid Drottinn Þinn Gud. Þinn sonur Salomon skal vera kongur epter mig, og sitia á mínum stóli.

18. Enn siá nú, Adonia er ordenn kongur, enn Þú, minn Herra kongur, veitst Þar eigi par af.

19. Hann hefir offrad uxum og alefe, og fiølda sauda, og baud Þar til øllum kongsins sonum, so og AbJathar kennemanne, og Joab hersføfdingiá, enn eigi hefir hann boded Þínum Þenara Salomon.

20. Enn Þú ert minn Herra kongur; alls Israels augu horfa uppá Þig, ad Þú undervísar Þeim, hver Þar skule sitia á míns Herra kongsins stóle, epter hann.

21. Annars, Þá minn Herra kongur er sofnadur med sínum fedrum, Þá mun eg og minn sonur Salomon sakadur halldenn.

22. A medann hún var enn nú ad tala vid kongenn, Þá kom Nathan spámadur.

23. Og Þeir søgdu kongenum til; siá! Þar er Nathan spámadur. Og sem hann kom inn fyrer kongenn tilbad hann kongenn framm á sitt andlit til Jardar,

24. Og sagde: minn Herra kongur! hefir Þú so sagt, Adonia skal vera kongur epter mig, og sitia á mínum stóli?

25. Þvi hann hefir fared ofann í dag, og offrad uxum og ale fe, og fiølda sauda, og hann baud øllum kongsins sonum og høfudsmønnum, Þar med AbJathar kennemanne. Og siá! Þeir eta og dracka med hønum, og seigia: luckufáe Adonia konungur!

26. Enn eigi baud hann mer þínum þenara, og eigi Zadok kennemanne, eda Benaia, syne Jojada, og eigi þínum þenara Salomone.

27. Er þad bifalad af mínum Herra kongenum, og þú letst þinn þenara þad eigi vita, hver eð sitia skal yfer stóle míns Herra kongsins epter hann?

28. David konungur svarade, og sagde: kalled fyrer mig BerSabee hingad. Og hún kom inn fyrer kongenn. Og sem hún stód fyrer kongenum.

29. Þá sór kongurenn, og sagde: so sannarlega sem Drottinn lifer, sá sem mína önd hefir frelsad úr öllum naudum:

30. Eg vil gera í dag, so sem eg hefe svared þer vid Drottinn Gud Israels, og sagt: ad Salomon þinn sonur skal vera kongur epter mig, og hann skal sitia í mínum (hásætis) stóle fyrer mig.

31. Þá hneigde Ber Sabee med sinne ásionu til Jardar, tilbad kongenn, og sagde: minn Herra David kongur fáe lucku æfinnlega!

32. Sídann sagde David kongur, kalled til mín Zadok kennemann, og Nathan spámann, og Benaja, son Jojada. Enn sem þeir komu inn fyrer konungenn,

33. Þá sagde kongurenn til þeira: taked med ydur ydars Herra þenara, og seted minn son Salomon á minn múl, og færed hann ofann til Gihon.

34. Og Zadok kennemadur, og Nathan prophete skulu þar smyria hann til kongs yfer Israel. Og blásed í basunur, og seiged: lucku fáe Salomon konungur!

35. Og fared upp hingad epter hönum, so skal hann koma og setiast í minn stól, og vera kongur fyrer mig, og eg vil bióda hönum, ad hann skule vera höfdinge yfer Israel og Juda.

36. Þá svarade Benaja, sonur Jojada, kongenum, og sagde: Amen! Drottinn míns Herra kongsins Gud, seige so.

37. So sem Drottinn hefir vered med mínum Herra kongenum, so se hann og med Salomone, ad hans stóll verde stærre enn míns Herra Davids kongs stóll.

38. Epter þetta gengu þeir ofann Zadok kennemadur, og Nathan spámadur, og Benaja, sonur Jojada, og Crethi, og Plethi, og settu Salomon á múl Davids kongs, og færdu hann til Gihon.

39. Og Zadok kennemadur tók vidsmiörs horned af tialldbúdenne, og smurde Salomon. Og þeir blesu í basunur, og allt fólked sagde: lucku fáe Salomon kongur!

40. Og allt fólked fór upp epter hönum, og fólked bles í pípur, og var fagnande, so ad jörденn skalf af þeirra háreiste.

41. Enn Adonia, og aller þeir sem hann hafde innbóded, og hiá hönum voru, heyrdu þad, og þeir höfdu þá loked máltíd. Og þá Joab heyrde basununnar hliod, þá sagde hann: hvøru gegner þetta kall og háreyste í borgenne?

42. Enn sem hann var enn nú þetta ad tala: siá! þá kom Jonathan, sonur AbJathar kennemanns. Og Adonia sagde: kom inn hingad, þviad þú ert einn godur madur, og munt bera god tídende.

43. Jonathan svarade, og sagde til Adonia: já! vor Herra David kongur hefir gert Salomon ad konge.

44. Og hefir sendt Zadok kennemann, og Nathan spámann, Benaia, son Jojada, og Crethi og

Plethi, med honum, og þeir settu hann uppá kongsins múl.

45. Enn Zadok kennemadur, og Nathanspámadur, smurdu hann til Kongs í Gihon, og þeir fóru þadann upp hingad med glede, so ad þar bulde í stadnum, og þad er nú sá háfade sem þer hafed heyrt.

46. Her med situr Salomon á þeim konunglega stóli.

47. Og konungsins þenarar eru inngengner ad blessa vorum Herra David kenge, og hafa sagt: þinn Gud gere Salomone eitt betra nafn, helldur enn ad þitt nafn er, og gere hans vellbis stól stærra, helldur enn þinn stóll er. Og kongurenn badst fyrer í sænginne.

48. Og konungurenn sagde so: lofadur se Drottinn Gud Israels, hver ed let í dag einn sitia á mínum stóle, so ad mín augu hafa þad sed,

49. Þá skelfdust og stódu upp aller þeir sem voru innbodner hiá Adonia, og gengu af stad, hver sinn veg.

50. Enn Adonia vard miøg hræddur fyrer Salomone, stód upp, og geck í burt, og hellt um hornenn á alltarenu.

51. Og þad var sagt Salomone; siá! Adonia óttast Salomon kong, og siá! hann helldur um alltaresins horn, og seiger: Salomon kongur svere mer í dag, ad hann skule eigi slá sinn þenara ihel med sverde.

52. Salomon sagde: vile hann vera fromur, þá skal þar eigi falla eitt hár af honum á jordena; enn finnest nockud vondt med honum, þá skal hann deya.

53. Sídann sende Salomon kongur þangad, og let leida hann ofann frá alltarenu. Og sem hann kom, þá tilbad hann Salomon konung. Enn Salomon sagde til hans: far heim í þitt hús.

## 2. Capitule.

1. Nú sem ad nálgadest andláts tíme Davids, þá baud hann syne sínum Salomon, og sagde:

2. Eg geng burt veg allrar veralldar. Tak þu stirk, og vert einn madur,

3. Og vakta þad sem þinn Gud hefir bifalad þer, ad þú ganger á hans vegum, og hallder hans skickaner, bodord, og rettinde, og vitnisburde, so sem skrifad stendur í Mosis løgmále, so þú meiger vera forsiáll í øllu þvi, sem þú gerer, og hvert sem þú snyr þer.

4. Uppá þad, ad Drottinn stadfeste sitt ord, sem hann taled hefir til mín, og sagt: ef ad þín born vardveita sína vegu, so ad þeir ganga trúlega fyrer mer, og af øllu hiarta, og af allre øndu, þá skal þar alldrei bresta mann af þer, yfer Israels stóli.

5. Og þú veist vel, hvad Joab, sonur ZeruJa, gerde mer, hvad hann gerde þeim tveimur hershøfdingium í Israel. Abner, syne Ners, og Amasa, syne Jethers, hvera hann drap, og úthellte strids blóde í fride, og let stridsblód koma á sitt bellte, sem var um hans lendar, og á hans skó, sem ad voru á hans fótum.

6. Ger þú epter þinne vitsku, so ad þú leider eigi hans gráu hár med fride nidur í grøfina.

7. Þú skallt veita børnum Barsillai Gileaditer miskunseme, so ad þeir ete vid þitt bord, þvi so helldu þeir ser til mín, þá eg flyda fyrer Absalone þínum brodur.

8. Og siá! þú hefir hiá þer Simei, son Gera, sonar Jemini af Bahurim, hver ed skammarlega bølvade mer á þeim tíma, þá eg geck til Mahanaim. Enn þá hann kom í móte mer hiá Jordan, þá sór eg

hønum vid Drottinn, og sagde: eigi vil eg sla þig ihel med sverde.

9. Enn þu skallt eigi lata hann vera saklausann, þviad þu ert einn vís madur, og veitst vel hvad þú skallt gera hønum, ad þú leider hans gráuhár med blóde nidur í grøfena.

10. So sofnade David med sínum forfedrum, og var Jardadur í Davids borg.

11. Enn sá tíme, sem David var kongur yfer Israel, eru fiørutíu ár. Hann var kongur í Hebron siø ár, og þríu og þriátíu ár í Jerusalem.

12. Og Salomon sat á støle síns fødurs Davids og hans kongsríke var miøg støduget.

13 Enn Adonia, sonur Hagith, kom inn fyrer BerSabee, modur Salomonis. Og hun sagde: kemur þú med fride? hann sagde: já.

14. Og hann sagde: eg hefe ad tala vid þig. Hún sagde: seig framm.

15. Hann svarade: þú veitst vel, ad kongsríked var mitt, og allur Israel hafde snúest til mín, ad eg skyllde kongur vera. Enn nú er kongsríked umvendad, og er orded míns bródurs, af Drottne er þad hans orded.

16. Nu bid eg einnrar bónar af þer, ad þú viler eigi afvirda mitt andlit. Hún sagde til hans: seig framm.

17. Hann svarade: tala vid konginn Salomon (þvi hann mun eigi óvirda þitt andlit) ad hann vile gefa mer Abisag af Sunem til eigennkvinnu.

18. BerSabee svarade: nú vel, eg vil tala vid kongenn þinna vegna.

19. Og BerSabee kom inn fyrer Salomon konung, ad tala vid hann vegna Adonia. Og kongurenn stód upp, og geck í móte henne, og tilbad hana, og settest í sinn stól: þar var og settur einn støll handa kongsins modur, ad hún sette sig til hans hægre handar.

20. Og hún sagde: einnrar lítellrar bónar bid eg þig, ad þu viler eigi óvirda mitt andlit. Kongurenn sagde til hennar: bid modur mín, eg vil ei afvirda þitt andlit.

21. Hún sagde: lát Abisag af Sunem gefast þínum brodur Adonia til eigennkvinnu.

22. Þá svarade Salomon kongur, og sagde til sinnar modur: hvar fyrer bidur þú um Abisag af Sunem handa Adonia? bid þú hønum og so konungsríkisins, þvi hann er minn broder, elldre enn eg, og hann hefir med ser AbJathar kennemann, og Joab, son ZeruJa.

23. Og Salomon kongur sór vid Drottinn, og sagde: Gud gere mer þad og þad, Adonia skal hafa talad þetta í gegn sínu líse.

24. Og nú, so sannarlega sem Drottinn lifer, sá sem mig hefir stadfest, og láted sitia á støle míns fødurs Davids, og gerde mer eitt hús, sem hann hafde sagt: Adonia skal deya á þessum deigi.

25. Og Salomon kongur sende ofann Benaja, son Jojada, hann sló hann so ad hann let lífed.

26. Og kongurenn sagde til AbJathar kennemanns: far burt til þíns akurs í Anathot, þviad þú ert Daudans madur, enn eg vil eigi slá þig íhel á þessum deige, þvi þú barst Herrans Drottins ørk fyrer David mínum fødur, og þú leidst mótgang, þá minn fader leid mótgang.

27. So útrak Salomon AbJathar, ad hann mátte eigi vera Guds kennemadur, so ad uppfylldest ord Drottins, sem hann hafde talad yfer húsi Eli, í Silo.

28. Og þetta rikte kom fyrer Jo-

ad, þviad Joab hellt med Adonia, enn þó eigi med Absalon. Þá flyde Joab í tialldbúd Drottins, og hellt um alltaris hornenn.

29. Og tad var kunngert Salomone kongi, ad Joab være flúenn til tialldbúdar Drottins, og siá! hann stendur vid alltarid. Þá sende Salomon Benaja, sonur Jojada þangad, og sagde: far og slá þú hann.

30. Enn sem Benaja kom til tialldbúdar Drottins, þá sagde hann til hans: so seiger kongurenn: far út hedann. Hann sagde: nei, her vil eg deya. Og Benaja kunngerde þetta kongenum aptur, og sagde: so hefir Joab talad, og þvilíku svarade hann mer.

31. Þá sagde kongurenn til hans: ger þú so sem hann sagde, og slá þú hann, og jarda hann, so þú í burttaker þad blód sem Joab hefir úthellt, fyrer sakleyse, frá mer og mínu fødurs huse.

32. Og Drottinn mun bitala hønum hans blód yfer hans høfud, ad hann sló þá tvo menn íhel, þeir sem voru rettlátare og betre enn hann, og drap þá med sverde, so ad minn fader David visse þar eigi af, sem var Abner, sonur Ners, hershøfdinge yfer Israel, og Amasa, sonur Jethers, herhøfdinge yfer Juda,

33. Ad þeirra blód verde bitalad yfer Joabs høfud, og hans sædis æfenliga. Enn David og hans sæde, hans hús, og hans stóll hafe frid af Drottni æfinlega.

34. Og Benaja, sonur Jojada, geck upp, og sló hann, og drap hann, og hann var jardadur í sínu huse í eydemørku.

35. Og kongurenn sette Benaja, son Jojada, til herhøfdingia yfer herenn í hans stad, so og sette kongurenn Zadok prest í stad Abjathars.

36. Og kongurenn sende bod, og let kalla Simei, og sagde til hans: bygg þer upp eitt hús í Jerusalem, og bú þar, og far eigi út þadann neinstadar, hverke híngad ne þangad.

37. Enn á hverjum deige sem þú gengur út, og yferum lækenn Kedron, þá skallt þú víst vita, ad þú skallt deya; þitt blód se yfer þínu høfde.

38. Simei sagde til kongsins: þetta er gód meining; so sem minn Herra kongurenn hefir sagt, so skal þinn þenare gera. So bió Simei í Jerusalem langa tíma.

39. Epter þríu ár vard sá atburdur, ad tveir af þrælum Simei hlupu til Achis, sonar Maecha, hver ed var kongur í Gath, og þad var Simei undervísad: siá! þíner þrælar erú í Gath.

40. So tók Simei sig upp, og sødlade asna sinn, og fór til Achis í Gath ad leita þræla sinna. Enn sem hann kom þangad, þá flútte hann þræla sína frá Gath.

41. Þetta frette Salomon, ad Simei var farenn frá Jerusalem til Gath, og var komenn aptur.

42. Þá sende kongurinn af stad, og let kalla Simei, og sagde til hans: hefi eg eigi svared þer vid Drottinn, og vitnad fyrer þer, og sagt: á hverum deige sem þú fer út, og gengur híngad, edur þangad, þá máttu vita, ad þú skallt dauda deya? enn þú svarader mer: eg hefe heyrt eina góda meining.

43. Þvi hefir þú þá eigi hallded þig epter Drottins eide, og bodorde, þvi sem eg baud þer?

44. Og kongurenn sagde til Simei: þú veitst alla þá illsku, sem þínu sialfs hiarta er vitanleg, hvad

þú gerder mínum fødur David, Drottinn hefur bitalad þína illsku yfer þitt høfud.

45. Og kongurinn Salomon er blessadur, og Davids stóll mun stadfestast fyrer Drottni æfenlega.

46. Og kongurenn baud Benaja, syne Jojada, hann geck út og sló hann íhel. Og kongsríked stadfestest fyrer hønd Salomonis.

## 3. Capitule.

1. Og Salomon kongur mægbest vid Pharao konginn í Egyptalande, so ad hann feck dotter Pharaonis, og flutte hana í Davids børg, þar til hann hafde fullkomnad ad byggia sitt hús, og Drottins hús, og so múrveggena allt umkring Jerusalem.

2. Enn fólked offrade enn þá á hædunum, þvi þá var enn eigi byggt eitt hús nafne Drottins allt þangad til.

3. Enn Salomon elskade Drottinn, og geck epter sidum síns fødurs Davids, fyrer utann þad hann færde fórner og reykelse á hædønum.

4. Og kongurenn geck burt til Gibeon, ad fórnfæra þar, þviad þad var ein af þeim vegleguftu hædum, og Salomon offrade þusund brenneførnum yfer þvi sama alltare.

5. Og Drottinn birtest Salomone í Gibeon, um nótt, í draume, og Gud sagde: bid þú þess sem eg gefi þer.

6. Salomon sagde: þú veitter mínum fødur, þínum þenara David, mikla miskun, líka sem hann geck fyrer þer í sannleika og rettlæte, og med einu rettu hiarta fyrer þer, og þú hefir hallded hønum þá miklu miskun, og gefed hønum einn son, sem situr á hans stóle, so sem nú gefir raun vitne.

7. Nu, Drottinn! minn Gud! þú hefir sett þinn þenara til kongs í míns fødurs Davids stad. So em eg nú ynglingur, og veit hverke minn útgang ne inngang.

8. Enn þinn þenare er á medal þessa folks, sem þú hefir utvaled, hvert ad so margt er, ad engenn kann ad telia, edur uppskrifa þad fyrer fiølda saker.

9. Þvi gef þínum þenara eitt hlydugt hiarta, so ad hann meige dæma þitt folk, og skilia hvad godt se og illt; þvi hver kann ad dæma þetta þitt megtuga folk?

10. Þetta þocknadest Drottne vel, ad Salomon bad um slíkt.

11. Og Gud sagde til hans: søkum þess, ad þú badst um þvilíkt, enn beidder eigi um lánga lífdaga, eda um ríkedæme, eda um sáler þinna óvina, helldur um speke, ad heyra doma.

12. Siá, so hefi eg gert epter þínum ordum. Siá! eg hefi gefed þer eitt víst og skilningsfullt hiarta, so ad þinn líke hefir eigi vered fyrer þig, og eigi helldur skal koma epter þig.

13. Herumframm hefi eg gefed þer þad, sem þú badst eigi um, sem er audæfe og dyrd, so ad engenn medal konganna er þinn líke í þinne tíd.

14. Og ef þú gengur á mínum vegum, og helldur mína setninga, og bodord, so sem þinn fader David hefir gert, þá vil eg gefa þer langa lífdaga.

15. Enn sem Salomon vaknade, siá! þá var þad einn draumur. Og hann kom til Jerusalem, og geck fyrer sáttmáls ørk Drottins, og offrade brenneførnum, og þacklætisførnum, og gerde øllum sínum þenørum eina mikla veitslu.

16. Á þeim tíma komu tvær

lausakonur fyrer kongenn, og stódu framme fyrer hønum.

17. Og sú eina kvinnann sagde: auvi minn Herra! eg og þesse kvinna biuggum samann í einu húse, og eg vard lettare þar í húsenu hiá henne.

18. Enn þremur døgum þar epter, þá eg hafde fædt, fædde hún og so. Og vid vorum bádar hver hiá annare, so ad þar var engenn annar í húsenn hiá ockur utann vid bádar.

19. Og þessarar kvinnu sonur dó á náttar þele, þvi hún hafde þreyngt ad hønum í svefne.

20. Og hún stód upp um nóttena, og tók minn son frá minne sídu, þá þín þenustukvinna svaf, og lagde hann ser í fáng, enn sinn hinn dauda son lagde hún mer á arm.

21. Enn þá eg stód upp um morgunenn, ad gefa mínum syne ad siúga, siá! þá var hann daudur. Enn eg hugde vandlega ad um morguninn, og siá! þá var þetta eigi minn sonur hern eg hafde fædt.

22. Hin ønnur kvinnann svarade: þad er eigi so; minn sonur lifer, enn þinn sonur er daudur. Hin sagde: þad er eigi so, þinn sonur er daudur, enn minn sonur lifer. Og þær toludu á þennann hátt fyrer kongenum.

23. Og kongurenn sagde: þesse seiger, minn sonur lifer, enn þinn sonur er daudur. Sú ønnur seiger: eigi so, þinn sonur er daudur, enn minn sonur lifer.

24. Þá sagde kongurenn: færed mer eitt sverd. Og sem sverded var borid fyrer kongenn,

25. Þá sagde kongurenn: skipted þvi lifanda barne í tvo hlute, og fáed helming hverri þeirra.

26. Þá sagde kvinnann til kongsins, hverrar sonur ad lifde (þviad hennar modurlegt hiarta brann yfer hennar syne): auvi, minn Herra! gef þú henne þad lifanda barned, og dreped þad eigi. Enn hin ønnur sagde: vere þad hverke þitt ne mitt, lated skipta þvi í sundur.

27. Þá svarade kongurenn, og sagde: gefed þessare barned lifanda, og dreped þad eigi, þviad hún er moder ad þvi.

28. Og allur Israel heyrde þennann dóm sem kongurenn hafde dæmt. Og þeir óttudust kongenn, þvi þeir sáu, ad Guds speke var med hønum, til ad hallda dóm.

## 4. Capitule.

1. So var nú Salomon konungur yfer øllum Israel.

2. Og þesser voru hans høfdingiar; Asar Ja, sonur Zadoks kennemanns.

3. Elihoreph og Ab Ja, syner Sisa, voru skrifarar. Josaphat, sonur Ahilud, var Cantzlari.

4. Benaia, sonur Joiada, var hershøfdinge. Zadok og Ab Jathar voru kennemenn.

5. Asar Ja, sonur Nathans, var yfer embættis mønnunum. Sabud, sonur Nathans kennemanns, var vinur kongsins.

6. Ahisar var Hirdstiori. Adoniram, sonur Abda, var rentumeistare.

7. Og Salomon sette tolf lensmenn yfer allt Israels folk, þeir ed forsorgudu kongenn og hans hús; einn mánadar tíma í árenu hafde hver þeirra ad forsorga.

8. Og þesse voru þeirra nøfn: sonur Hur á Ephraims fialle.

9. Sonur Dekers, í Makas, og í Saalbim, og í Beth Semes, og í Elon, og í Beth Hanan.

10. Sonur Hesed í Aruboth, og

hafde þar til med Socho, og allt Hepher land.

11. Sonur AbiNadab (hafde) allt herradæmed í Dor, og hann átte Taphath dottur Salomons.

12. Baena sonur Ahilud, í Taenach, og í Megiddo, og yfer allt Bethsean, sem liggur hiá Zartana under Jesreel, fráBethsean, og allt til Mehola slettu, allt til Jakteam hinumeigenn.

13. SonurGebers í Ramoth, í Gilead, og hafde þorpenn Jair. Sonur Manasse, í Gilead, og hafde landareign Argob, sem liggur í Basan, sextíu storar múradar borger, og med kopar slaungum.

14. Ahinadab, sonur Iddo, í Mahanaim.

15. Ahimaas í Nephthali, og hann tók og Salomons dottur Basmath til eigennkvinnu.

16. Baena, sonur Husai, í Asser, og í Aloth.

17. Josaphat, sonur Paruah, í Isachar.

18. Simei, sonur Ela, í Benjamin.

19. Geber, sonur Uri, í Gileads lande, í Sihons Ammorita kongs lande, og Ogs, kongsins af Basan, sem var einn høfdinge í sama lande.

20. Enn Juda og Israel voru marger sem siáfar sandur, og þeir átu og drucku, og voru glader.

21. So varSalomon einnHerra yfer øllum kongaríkium, frá vatnenu í lande Philistinorum, og tilEgypti landamerkia, sem færdu honum gáfur, og þiónudu honum alla hans lifdaga.

22. Og Salomon hafde daglega dags til síns fædis þriátíu mæla hveitemiøls, og sextíu mæla annars miøls.

23. Og tíu alda uxa, og tuttugu uxa haggeingna, og hundrad sau-de, umframm hiørtu, og hreindyr, og steingeitur, og aled fe.

24. Þviad hann stiornade í øllu landenu á þessa sidu vatnsins, frá Tiphsah, og inn til Gasa, yfer øllum kongum þeim meigenn vatnsins. Og hann hafde frid af øllum sínum undergefnum umhverfis.

25. So ad Juda og Israel bigdgu fyrer utann ugga, hver under sínu víntre og fíkiu tre, frá Dan allt til BerSeba, so lenge sem Salomon hann lifde.

26. Og Salomon hafde fiørutíu þusund vagnhesta, og tolf þusund rídande menn.

27. Og embættis mennerner forsorgudu kongenn Salomon, og allt þad sem til hans bords heyrde, hver á sínum mánude, og letu ecke vanta.

28. Þeir fluttu og bygg og hey fyrer hestana, og veghlauparana, í þann stad sem hann var, hver epter því sem hønum var skipad.

29. OgGud gaf Salomone miøg mikenn vísdom og speke, og ódeigt hiarta, sem sandur er liggur á siáfar strøndu.

30. Sá Salomonis vísdomur var stærre enn allra barna í austurálfunne, og allra Egyptskra vísdomur.

31. Og hann var spakare enn aller adrer menn, og vísare helldur enn þeir, Ethan, Esrahiter, Hemann, Chalchal og Darda, Machols syner, og hann var nafnfrægur medal allra heidingia allt umkring.

32. Og hann talade þríu þusund ords kvidu, og hans vísur voru þusund og fimm,

33. Og hann talade um Tren, frá Cedrus í Libanon, inn til Ysop sem vex úr veggium. Hann talade og so um fe og fugla, um skridkvikende, um fiska.

34. Og þar komu menn af øllum

þiódum ad heyra Salomonis speke, frá ollum kongum á jördunne, sem ad heyrt hofdu af hans speke.

## 5. Capitule.

1. Og Hiram kongur í Tyro sende sína þenara til Salomonis. Þvi hann hafde spurt, ad þeir hofdu smurt hann til kongs í hans fodurs stad. Þvi Hiram elskade David alla hans lífdaga.

2. Og Salomon sende til Hiram, og let seigia honum.

3. Þu veitst, ad minn fader David mátte eigi byggia hús nafne Drottins síns Guds, sokum ófridar, sem var ollumeigenn í kringum hann, þar til ad Drottinn gaf þá alla under sóla hans fóta.

4. Enn nu hefir Drottinn minn Gud gefed mer hvíld, ollumeigenn í kring, so ad her er eugenn mótstandare, og ei helldur vond hindran.

5. Siá! so hefi eg nú hugsad ad byggia nafne Drottins míns Guds eitt hús, so sem Drottinn hefir talad til míns fodurs Davids, og sagt: Þinn sonur, hvern eg vil setia í þinn stad, í þitt sæte, hann skal byggia mínu nafne eitt hús.

6. Þar fyrer biod þú nú, ad menn hoggve mer Cedrus vide af Libanon, og ad þíner þenarar seu med mínum þenorum. Og eg vil gialldа þer laun þinna þenara, so sem þú ákvedur. Þviad þú veitst, ad her er eugenn hiá oss, sem kann ad hoggva tre, sem þeir Zidoniar.

7. Enn sem Hiram heyrde Salomonis ord, þá vard hann miog gladur, og sagde: lofadur se Drottinn á þessum deige, hver ed gaf David einn vísann son yfer þad mikla folk.

8. Og Hiram sende til Salomons, og let seigia honum: heyrda eg þad sem þú sender til mín, eg vil gera epter allre þinne gyrnd, um þá Cedrus vidu og grenetre.

9. Míner þenarar skulu flytia þau nidur af Libanon til sióarins, og eg vil láta leggia þau á flota á sióenn, allt til þess stadar sem þú lætur seigia mer, og eg skal láta leysa viduna þar, enn þú skallt láta sækia þá. Enn þú skallt og gera minn vilia, og gefa vister mínum þenorum.

10. So gaf Hiram Salomone Cedrus vidu, og grenetre, epter ollum hans vilia.

11. Og Salomon gaf Hiram tuttugu þusund mæla hveitis, handa hans þenorum, ad eta, og tuttugu mæla med steitt oleum. So miked gaf Salomon Hiram hvert ár.

12. Og Drottinn gaf Salomone vísdóm, so sem hann het honum. Og þar var fridur millum Hirams og Salomons, og þeir bundu sáttmálamed ser báder.

13. Og Salomon lagde manntal á allann Israel, og þad manntal var þriátíu þusunder manna.

14. Og hann sende þá til Libanon, tíu þusund hvern mánud, so þeir voru einn mánud á Libanon, enn tvo manude heima. Og Adoniram var yfer þvi manntale.

15. Og Salomon hafde siotíu þusunder þeirra sem báru byrder, og áttatíu þusunder sem ad voru ad vidartelgingu á fiallenu.

16. Umframm Salomons yppurstu verkstiora, hverer ad setter voru yfer erfided, þeir voru ad tolu þríar þusunder, og þríu hundrud, hverer stiornudu yfer fólkenu sem erfided vann.

17. Og kongurenn baud, ad þeir skylldu upp brióta stóra og kostulega steina, sem voru uthoggner steinar til hussens grundvallar.

18. Og Salomonis byggingarmenn, og Hirams byggingarmenn, og Giblim, þeir hiuggu út og biuggu til videnn og steinana, ad smída húsed med.

## 6. Capitule.

1. A þvi áttatugásta áre hins fimmta hundrads, frá þvi ad Israels børn voru útleidd af Egyptalande, á þvi fiorda áre ríkes Salomons kongs yfer Israel, í þeim mánade Sif, þad er sá annar mánudur, þá var hús Drottins uppbyggt.

2. Enn þad hús sem Salomon kongur smídade Drottni var sextíu álna breidt, og þriátíu álna hátt.

3. Og hann byggde eitt forbyrge framm af musterenu, tuttugu álna langt, epter hússens breidd, og tíu álna breidt, framm af húsenu.

4. Og hann gerde glugga á húsenu, innann til vída, og utann til mióa.

5. Og hann byggde einn umgang vid vegg hússens, allt umkring, so hann geck bæde umkring mustered og kórenn, og gerde vegge þar umkring utan til.

6. Þau nedstu gaung voru fimm álna víd, og þau í mided sex álna víd, enn þau þridiu siø álna víd, þvi hann lagde biálka utan umkring húsed, so ad þeir komu eigi vid vegg hússens.

7. Og þá húsed var sett, þá voru steinarner med øllu ádur tilreidder, so ad þar heyrdest hverke hamar, ne øxe, edur nockur smídatól af járne, í byggingunne.

8. Og þar voru einar dyr hægrameigenn midt á húsenu, og um vindelsteintrøppur var ad ganga í midgangenn, og frá midgangenum upp í þann þridia.

9. Og so byggde hann húsed, og fullkomnade þad, og hann þiliade húsed med Cedrustre, bæde ofann til og um veggena.

10. Hann byggde og so ein gaung ofann á øllu húsenu, allt umkring, fimm álna há. Og hann þakte húsed med Cedrus vidum.

11. Og ord Drottins skede til Salomons, og sagde:

12. Þetta er húsed, þad sem þú smídar. Ef þú gengur í mínum bodum, og gerer epter mínum rettindum, og helldur øll mín bodord, ad ganga í þeim, þá vil eg stadfesta mitt ord vid þig, so sem eg sagde til þíns fødurs Davids.

13. Og eg vil búa á millum Israels barna, og eg vil eigi yfergefa mitt folk Israel.

14. So bygde Salomon húsed, og fullkomnade þad.

15. Og hann smídade veggena á húsenu innann til á hliðunum med Cedrus fiølum, nedan frá gólfenu, og upp ad þakenu, og þiliade þad innann til med tre, og lagde gólfed í húsenu med grene fiølum.

16. Hann byggde og so á bak vid húsed einn vegg af Cedrus tre, tuttugu álna langann, upp frá gólfenu, og under þaked, og byggde kórenn þar fyrer innann, og þad allrahelgasta.

17. Enn musteresins hús (fyrer framann kórenn) var fiørutíu álna langt.

18. Enn allt húsed innann til var eigi nema Cedrus vidur, med rendum knøppum, og útskornum blómstrum, so ad hverge mátte á nockurn stein siá.

19. Enn kórenn tilreidde hann innann til í húsenu, so ad þangad skyllde setiast sáttmáls ørk Drottins.

20. Og fyrer kornum, sem var tuttugu álna langur, og tuttugu álna breidur, og tuttugu álna hár,

og sleigenn med kláru gulli, þiliadе þann alltarid med Cedrustre.

21. Og Salomon þakte húsed innann allt med kláru gulle, og hann gerde gullsteingur fyrer kórnum, sem hann hafde klædt med gulli.

22. So ad allt húsed var solld ungis med gulli þaked, þar med bió hann allt alltared med gulli, utan fyrer kórnum.

23. Hann gerde og í kórnum tvo Cherubim af oliuvidar triám, tíu alna ad hæd.

24. Hver Cherubs vængur var fimm alna langur, so ad þad var tíu alner, frá þeim eina hans vængs enda, og til þess annars vængs enda.

25. So hafde og so sá annar Cherub tíu alner, og báder Cherubim høfdu eins máta, og eins rúm.

26. So ad hver Cherub var tíu álna hár.

27. Og hann sétte þessa Cherubim innann til í húsenu: og Cherubim útbreiddu sína vænge, so ad vængur þess eina snart þann eina vegg, og vængur þess annars Cherubs snart og þann annann vegg, enn í midiu húsenu snart hver vængur annann.

28. Og hann bió þessa Cherubim med gulle.

29. Hann let og útsnidka alla vegge húsens allt umkring, med útskornum Cherbubim, Pálmvidum, og Blómstrum, innann til og utann til:

30. Og hann yferklædde golfed hússens med gulle, innann og utann.

31. Og hann gerde tvær hurder á inngangenum til kórsins af olivu tre, med fimmstrendum dyrastólpum.

32. Og hann let útskera þar á, med snidkara verke, Cherubim, pálmvid, og blóm, og yferklædde þær med gulle.

33. Hann gerde og í mustersins inngange ferstrenda dyrastólpa af vidsmiørs vidar tre.

34. Og tvær hurder af grenetre, og hver hurd hafde tvo vænge, hángande til samans á sínum hiørum.

35. Og hann let útskera þar á Cherubim, Pálmvid, og blómstur, og bió þær med gulli, rett eins sem þad var bifalad.

36. Hann byggde og so einn gard innann til med þremur ridlum úthoggenna steina, og eitt laged med hefludu Cedrus tre.

37. A þvi fiorda áre, í þeim mánade Sif, var grundvøllurenn hussens Drottins lagdur.

38. Og á þvi enu ellefta áre, í þeim mánude Bul (þad er sá áttunde mánudur) var húsed algert, so sem þad vera skyllde, so þeir voru ad smída þad í siø ár.

## 7. Capitule.

1. Enn Salomon uppbygde sitt hús í þrettan ár, ad hann fullkomnade þad med øllu.

2. Og hann bygde eitt hús af Libanon skóge, hundrad alna langt, fimmtíu alna breidt, og þriátíu alna hátt. A fiorum rødum Cedrus stólpa, og Cedrus bita á stólpønum.

3. Enn þad var ofann til þaked med Cedrus, yfer bitunum, sem láu á sømu stólpum, sem voru fimm og fiørutíu, já, fimmtán í hverre rad.

4. Og þar voru gluggar þrísetter, hverer imóte ødrum, þrír imóte þremur.

5. Og þeir voru ferskeytter á hvern veg.

6. Hann bygde og eitt forbyrge med stólpum, fimmtíu álna langt, og þriátíu álna breidt, og enn eitt

forbyrge fyrer framann þetta, med stólpum, og bickum bitum.

7. Hann bygde og einn dómstéls sal, ad sitia dóm í, og þiliade bæde gólfenn med Cedrus triám.

8. Og so til síns húss, í hveru hann bió, eitt annad forbyrge, bak vid salenn, smídad so sem þad annad. Hann gerde og so eitt hús líka sem salenn, handa Pharaos dottur, hvera Salomon hafde teked ser til eigennkvinnu.

9. Allt þetta voru kostuleger steinar, áthøggner epter hornjárne, med søg skorner uppá allar sídur, nedan frá grundvelle, og upp under þaked, þar til og sá stóre gardur utan til.

10. Enn grundvøllurenn var og so kostuleger og stórer steinar, tíu og átta alna ad vexte.

11. Og þar uppá kostulega úthøggner steinar, epter hornjárnenu, og Cedrus vider.

12. Enn sá stóre gardur hafde allt umkring þríar rader úthøggenna steina, og eina rod af Cedrus sialvidar þile, líka so sá gardur hiá Drottins húse, innann til, og sá salur hiá húsenu.

13. Og kongurinn Salomon sende út, og let sækia Hiram af Tyro,

14. Hver ed var sonur einnrar eckiu af ætt Naphthali, og hans fader hafde vered einn madur af Tyro, hann var einn þiodhage á kopar, fullur af vísdóme, skilninge, og kunnáttu, ad smída allra handa smíde af malme. Og sem hann kom til Salomons kongs smídade hann allar hans smídar.

15. Og hann gerde tvo koparstólpa, átian alna háfann hvern fyrer sig, og einn þrádur tolf alna var mælerenn yferum hvern stólpa.

16. Og hann gerde tvo knappa steypta af kopar, ad setia þá ofann á stólpana, og hver knappur var fimm alna hár.

17. Og þar voru uppá hverum knappe, ofann á stólpunum, sió slettud bønd, so sem kediur.

18. Og hann gerde á hverum knappe, tvær rader med granata eple, rett umkring á einu bande, sem knappurenn var hulenn med.

19. Og knapparner voru líka sem rósa fyrer salnum, fiøgra álna storer.

20. Enn granata eplenn voru tvø hundrud í rødum, rett umkring, ofann og nedann til þess bands, sem geck umkring midia knappana, á hverum knappe á bádum stólpunum.

21. Og hann reiste upp stólpana fyrer forbyrge musterisins. Og þann sem hann sette á hægre sídu kallade hann Jachin, enn þann sem hann sette á vinstre sídu kallade hann Boas.

22. Og þar stód ofann á stólpunum líka so sem roser, so var þad verk stólpanna fullkomnad.

23. Og hann gerde eitt steypt haf, og þad var kringlott, tíu alna vídt, frá ødrum barme til annars, og fimm alna hótt, og ein snúra þriátíu alna lang var mælerinn allt umkring.

24. Og þar gengu knappar under barmonum kringum þad sama haf, sem var tíu álna vídt, rett í kringum hafed, og þesser knappar voru steypter í tveimu rødum.

25. Og þad stod uppá tolf uxum; þremur var snúed imót nordre, þremur imót vestre, þremur imót sudre, og þremur imót austre. Og hafed (stod) þar ofann á, og allur þeirra aptare hlutur stod inn.

26. Þickten á þvi var þverhandar, enn barmarner þar á voru sem barmar á einum bikar, líka sem ein

útsprungenn rosa, og þad tók tvo þusund bathos.

27. Hann gerde og so tíu kopar-stóla, hvern fiogra álna langann og breidann, og þriggia alna háfann.

28. Og stólarner voru so gerder, ad þeir høfdu flatvege á millum listanna.

29. Og utan á flatvegunum millum listanna voru Leon, uxar, og Cherubim, og flatveigerner, sem Leonenn og uxarner voru uppá, høfdu lista ofann og nedann, og litla fætur þar á.

30. Og hver stóll hafde fiøgur koparhiol med køpar øxlum, og á þeim fiorum hornum voru steyptar axler, hver gagnvart annare, festar nedan under ketelenn.

31. Enn hálsenn á midium stólnum var einnrar alnar hár, og kringlottur, hálfrar annarar álnar vídur, og þar voru doppur á háls listunum, sem voru med fiorum hornum, enn eigi kringlottar.

32. Enn þau fiogur hiól stodu ad nedann, upp ad sídunum, og hióla ásarner voru upp ad stólunum, hvert hiól var hálfrar annarar alnar hátt.

33. Og hiólenn voru líka sem vagna hiól, og þeirra hióláſar, hiól augad, hiólrimarnar, og hiólkanntarner, var allt steypt.

34. Og fiorar þær axler, á hvers stóls fiorum hornum, voru og so á stólunum.

35. Og á hálsenum, ofann á stólunum, einnrar hálfrar alnar háfum, rett umkring, voru listar og sídur á stólunum,

36. Og hann let útgrafa þar sem slett var, á þeim somu flatvegum og listum, Cherubim, Leon, og palmvid, hveri hiá ødru, rett umkring þar uppá.

37. Epter þessum máta gerde hann þá tíu steypta stóla, og høfdu aller einn máta og rúm.

38. Og hann gerde tíu kopar katla, og þar gengu fiørutíu bath í einn ketel, og var fiogra alna stor, og þar var einn ketell á hverum stól.

39. Hann sette fimm stóla í þad hægra horn í húsenu, og adra fimm vid þad vinstra horn, enn hafed sette hann framanverdt til hægre handar, imót sudre.

40. Og Hiram gerde og so potta, skuflur, munnlaugar, og fullkomnade so allt verkid, sem Salomon kongur let gera á Drottins húse.

41. Sem voru þeir tveir stólpar, og þeir bøllottu knappar, ofann á þeim tveimur stólpum, og þau tvo slettudu bønd, ad hylia þá tvo bøllottu knappa á stólpunum.

42. Og þau fiøgur hundrud granata eple á þeim tveimur slettudum bøndum, já tvær rader med granata eple á hverum streing, ad hylia þá tvo bøllottu knappa á stólpunum.

43. Og þá tíu stóla, og tíu katla þar ofann á.

44. Þar til hafed, og tolf uxa under hafenu.

45. Pottana, skuflurnar, og munnlaugarnar. Og øll þesse ker, sem Hiram gerde konginum Salomone, til Drottins húss, þau voru af klárum kopar.

46. I slettlende hiá Jordan let kongurenn steypa þau, í þickre jørdu, millum Suchot og Zarthan.

47. Og Salomon let øll ker vera oveigenn, søkum þess ofur mikla kopars.

48. Og Salomon gerde og so øll verkfære sem heyrdu til húse Drottins, sem var eitt gull alltare, eitt gullbord, sem skodunar braudenn liggiaá.

49. Fimm liosastikur á hægre síðu, og fimm liosastikur á þá vinstre síðu, fyrer kórnum, af kláru gulle, með gullblomstrum, lømpum, og liosasøxum.

50. Þar til skáler, diska, munnlaugar, skeider, og pønnur, af kláru gulle. Einnenn voru hiarer hurðarennar á húsenu innann til í þui allrahelgasta, og á hússens dyrum í musterenu, af gulle.

51. So var nú allur gerningurenn fullkomnaður, sem Salomon kongur gerde á Drottins húse. Og Salomon færde þar inn það sem hans faðer David hafde helgað, af silfre, gulle, og kerum, og lagde það í fehyrdslur Drottins hu§.

## 8. Capitule.

1. Þá samankallade Salomon kongur til sín þá ellstu af Israel, þá enu yppurstu af øllum ættkvíslum, og fedranna høfdingia á međal Israels barna, til Jerusalem, að uppfæra Drottins sáttmáls ørk af Davids stað, það er Zion.

2. Og aller Israels menn komu tilsamans, til kongsins Salomons, í þeim mánuðe Ethanim, á hátíðenne, það er sá enn siøunde mánuður.

3. Enn sem aller þeir enu ellstu af Israel komu, þá tóku prestarner ørk Drottins upp,

4. Og fluttu hana upp, og þar til samkundu tialldbúðena, og øll helgedomsins verkfære, sem voru í tialldbúðenne, það gerðu prestarner og levitarner.

5. Enn kongurinn Salomon, og allur Israels søfnuður, sem samann var komenn til hans, þeir gengu með hønum fyrer ørkenne, og offruðu sauðum og nautum, so mørgum, að enginn kunne að telia eður reikna það.

6. So báru prestarner Drottins sáttmáls ørk til síns staðar, í kórenn, í húsenu, í það allrahelgasta, under vænge þeirra Cherubim.

7. Þui Cherubim útbreiddu vængena yfer þann stað sem ørkenn stóð, og huldu ørkena, og hennar steingur ofann til.

8. Og steingurnar vóru so langar, að maður kunne að siá á þeirra knappa í helgedomenum, fyrer framann kórenn. Enn þeir sem úte voru, gátu eigi séð þá, og eru þeir þar allt til þessa dags.

9. Og þar var ecke í ørkenne, utann alleinasta þau tvø Moses steinspiølld, sem hann let þangað í Doreb, þá Drottinn gerde einn sáttmála við Israels børn, þá þau voru útfarenn af Egyptalande.

10. Enn sem prestarner gengu út úr helgedomenum þá uppfyllte eitt sky hús Drottins.

11. So að prestarner gátu eigi staðeð, og slútt embætte fyrer skyenu, þui dyrð Drottins uppfyllte hús Drottins.

12. Þá sagde Salomon: Drottinn hefur talað, að hann villde búa í dimmunne,

13. Eg hefi að sønnu bygt þer eitt hús til íbúðar, eitt sæte, að þú skuler þar búa æfennlega.

14. Og kongurenn snere sínu andlite, og blessaðe allann Israels søfnuð, enn allur Israels almúge stóð.

15. Og hann sagðe: lofaður se Drottinn Israels Guð, sem talaðe með sínum munne til míns føðurs Davids, og fullkomnaðe það með sinne hende, og sagðe:

16. Frá þeim deige er eg færde mitt folk af Egyptalande, hefi eg eigi útvaled nockurn stað á međal nockorar Israels ættkvíslar, að mer skyllde byggiast eitt hús, so að mitt

nafn skyllde þarinne vera, enn eg útvalde David, ad hann skyllde vera yfer minu folki Israel.

17. Og minn fader David hafde ad sønnu huglagt ser ad byggia Drottins Israels Guds nafne eitt hús.

18. Enn Drottinn sagde til míns fødurs Davids: þad þú hefir í sinne, ad byggia mínu nafne eitt hús, þá gerder þú vel, ad þú tókst þer þad fyrer.

19. Enn þó skalltu eigi byggia þad hús, helldur þinn sonur, sem koma mun af þínum lendum, hann skal byggia mínu nafne eitt hús.

20. Og Drottinn hefir stadfest sitt ord sem hann talade, þvi eg em uppkomenn í stad míns fødurs Davids, og sit á stóle Israels, so sem Drottinn sagde: og eg hefe byggt Drottins Israels Guds nafne eitt hús.

21. Og hefe tilreidt þar einn stad til arkarennar, í hverre ad er Guds sáttmále, sem hann gerde vid vora forsedur, þá hann førde þá af Egyptalande.

22. Og Salómon geck framm fyrer Drottins alltare, í auglite alls Israels almúga, og útbreidde sínar hendur til himens.

23. Og sagde: Drottinn Gud Israels! þar er engenn Gud þer líkur, hverke á himnum uppe, og ei helldur á jørdu nidre. Þú sem helldur þinn sáttmála og miskunseine vid þína þenara, þeir sem ganga fyrer þer af øllu hiarta.

24. Þú sem og hellst vid David, minn fødur, þinn þenara, allt þad þú hønum tilsagder, þú talader þad med þínum munne, og fullkomnader þad med þinne hende, so sem þad stendur nú á þessum deige.

25. Nú Drottinn Israels! halt þú vid þinn þenara David, minn fødur, þad þú talader til hans, og sagder: Þig skal eigi bresta einn mann fyrer mer, sem skal sitia á Israelis stóle, þó so, ad þín børn vardveite sína vegu, og ad þau gánge fyrer mer, so sem þu hefir genged fyrer mer.

26. Nú Israels Gud! lát þín ord sannast, sem þú talader til þíns þenara Davids míns fødurs.

27. Þvi meinar þú og so, ad Gud búe á jørdunne? siá! himenenn og aller himnanna himnar kunna eigi ad taka þig, hvad skyllde þá þetta hús fad gera, sem eg hefe uppbygt?

28. Snú þer til bænar þíns þenara, og til hans grátlegrar beidne, Drottinn minn Gud! uppá þad þú heyrer lofgerd og bæn, þá sem þinn þenare gerer í dag fyrer þer.

29. So þín augu stande openn yfer þessu húse nótt og dag, yfer þessum stad, sem þú hefir sagt um: mitt nafn skal þar vera. Þu viler heyra þessa bæn, sem þinn þenare gerer í þessum stad,

30. Og ad þú viler heyra bæna ákall þíns þenara, og þíns folks Israels, sem þeir munu her gera í þessum stad, þar þú byr á himnum, og þá þú þad heyrer, nádugur vera.

31. Þegar nockur syndgast imóte sínum náunga, og tekur einn eid uppá sig, med hverum hann plicktar sig, og sá eidur kemur fyrer þitt alltare, í þessu húse.

32. Ad þú viler hann heyra í himnum, og gera þínum þenara rett, fordæmande þann ógudlega, og gialldande hans veg yfer hans høfud, og rettinn tilseigiande þeim rettvísa, til ad gefa hønum epter sínu rettlæte.

33. Þá þitt folk Israel verdur sleiged fyrer sínum óvinnum, søkum þess, ad þeir hafa syndgast imóte þer, og þeir snúast til þín, og þeir

medkenna þitt nafn, og bidia, og grátbæna þig í þessu húse,

34. Þá viler þú heyra þá í himenenn, og vera nádugur syndum þíns folks Israels, og leida þá í landed aptur, það sem þú hefir gefed þeirra forfedrum.

35. Þá að himenenn verdur tilluktur so að þar rigner eigi, sökum þess, að þeir hafa syndgast imóte þer, og þeir bidia í þessum stad, og medkenna þitt nafn, og snúa ser frá sínum syndum) þegar að þú plágar þá,

36. Að þú viler þá heyra í himenenn, og vera nádugur yfer syndum þinna þenara, og þíns folks Israels, að þú víser þeim þann góda veg, á hverum þeir skulu ganga, og lát so rigna yfer landed, hvert þú hefir gefed þínu fólke til erfdar.

37. Nær þar kemur hallære, eda drepsótt, edur þurkur, edur brune, edur eingesprettur, edur kornormar á landed, eda þeirra óviner í landenu setiast um þeirra borgarhlid, eda nockurs háttar plága eda siukdomur,

38. Hver þá bidur og grátbæner, hvert helldur það er ein manneskia, edur allt þitt folk Israel, þeir sem formerkia sína plágu, hver í sínu hiarta, og útbreida sínar hendur til þessá húss.

39. Að þú viler heyra í himenenn, í því sæte þar sem þú byr, og viler vera nádugur, og skicka so, að þú gefi serhverium epter því sem hann hefir geng(e)d, líka sem þú þecker hans hiarta, þviad þú alleina þecker allra mannanna barna hiörtu.

40. Uppá það, að þeir óttest þig ætíd, so leinge sem þeir lífa í landenu, því sem þú hefir gefed vorum forfedrum.

41. Nær ed og so nockur framande, hann sem eigi er af þínu folke Israel, kemur af fiarlægu lande, fyrer sökum þíns nafns,

42. (Þvi þeir munu heyra um þitt stóra nafn, og um þína megtugu hönd, og um þinn útretta arm) og hann kemur að bidiast fyrer, fyrer þessu húse.

43. Að þú viler þá heyra í himenenn, í sæte þíns bústadar, og gera allt það sem sá framande ákallar þig um, uppá það, að allar þióder á jördunne meige þeckia þitt nafn, og so óttast þig, líka sem þitt folk Israel, og að þeir meige vita, hversu að þetta hús, sem eg hefe bygt, er kallad epter þínu nafne.

44. Þá að þitt folk fer út í stríd, imóte sínum óvinum, á þann veg sem þú sender þá, og þeir bidia til Drottins, mót veigenum til þess stadar sem þú útvalder, og til þess húss sem eg hefe bygt þínu nafne,

45. Að þú viler þá heyra þeirra bæner og grátbeidne í himenenn, og gera (þeim rett.

46. Og þá þeir syndgast imóte þer (því þar er eingenn madur sem eigi syndgast) og þú verdur reidur, og þú gefur þá þeirra óvinum, so þeir færa þá burt hertekna, í þeirra óvina land, langt í burt, eda nálægt.

47. Og þeir idrast í sínu hiarta, í landenu þar þeir sitia hertekner, og þeir umvenda ser, og grátbæna þig í þeirra herleidingar lande, og seigia: ver höfum syndgast og illa gert, og ver vorum ógudleger.

48. Og þeir snúa ser so til þín af öllu hiarta, og af allre öndu, í sinna óvina lande, sem burt hafa fært þá, og bidia til þín á móte veigenum til þeirra lands, sem þú hefir gefed þeirra forfedrum, til þess stadar sem þú útvelur, og til

þess hús sem eg hefe bygt þínu nafne.

49. Þá viler þú heyra þeirra bæn og grátbeidne, í himnenum, af þínu heimelis sæte, og dæma þeim rett.

50. Og vert þú þínu fólke náduglür, sem ad syndgast hefir imóte þer, og øllum þeirra misgerningum, med hverum þeir hafa misbróted í móte þer, ad þú gefer þeim miskunseme fyrer þeim sem þá herteknа hallda, og ad þú miskuner þig yfer þá.

51. Þvíad þeir eru þitt folk, og þín erfd, hvera þú færder af Egyptalande, af þeim járnofne.

52. Og ad þ.'n augu seu openn til grátbeidne þíns þenara, og þíns folks Israelis, ad þú viler heyra þá í øllu þvi hvar um hellst þeir bidia þig.

53. Þvi þú útvalder þá þer til árfleifdar, af øllu þvi fólke sem á jørdunne er, so sem þú talader vid Mosen þinn þenara, þann tíma þú færder vora forfedur af Egyptalande. Drottinn! Drottinn!

54. Og semSalomon hafde endad allar þessar bæner, og ákall fyrer Drottni, þá reis hann upp frá alltare Drottins, og let þá af ad beigia sín kne, og út ad breida sínar hendur til himensins.

55. Og fór til ad blessa allann Israels søfnud med hárre raustu, seigiande:

56. Blessadur se Drottinn sem gefed hefir sínu fólke Israel hvíld, sem hann hefur talad, þvi þar vantar eigi eitt af hans gódum ordum, sem hann talade fyrer sinn þenara Mosen.

57. Drottinn vor Gud vere med oss, sem hann hefir vered med vorum forfedrum. Hann yfergefe oss eigi, og take eigi sína hønd frá oss.

58. So ad ver hneigum vor hiørtu ad hønum, og ad ver mættum ganga í øllum hans vegum, og hallda hans bodord, skickaner, og rettinde, sem hann hefir boded vorum forfedrum.

59. Og þesse ord, sem eg hefe bebed fyrer Drottni, mættu nálægiast Drottinn Gud vorn, dag og nótt ad hann vile skicka rett sínum þenurum, og so sínu fólke Israel, hverum á sínum tíma.

60. So ad allt folk á jørdunne meige þeckia, ad Drottinn er Gud, og engenn annar.

61. Og ad ydar hiørtu seu rett skickud fyrer Drottni vorum Gude, til ad ganga í hans setningum, og ad hallda hans bodord, líka sem á þessum deige skedur.

62. Og kongurenn, og allur Israel, fórnfærdu fórner fyrer Drottni.

63. Og Salomon færde þackætis fórner (sær sem hann offrade Drottne) tvø og tuttugu þusund uxa, og hundrad og tuttugu þusund sauda, so vígdu þeir hús Drottins, kongurenn, og øll Israels børn.

64. Þann sama dag vígde og kongurenn Midgardinn, sem var fyrer Drottins húse, þvi hann færde þar brenneoffur, matoffur, og þackoffurs feite. Þvi þad koparalltare, sem stód fyrer Drottni, var oflíted til brenneoffursins, matoffursins, og til þackaroffursins feitleika.

65. Og Salomon hellt á þeim sama tíma eina hátíd, og allur Israel med hønum, einn mikell mannsøfnude, frá Hemaths landamerkium, og allt til Egypti lækiar, fyrer Drottne vorum Gude, í siø daga, og enn aptur í siø daga, þad voru fiortan dagar.

66. Og hann let fólked fara þann áttunda dag. Og þeir bless=

udu kongenn, og gengu glader í burt til tialldbúda sinna, og fagnande í sínu hiarta, yfer ollu þvi gód, sem Drottinn hafde gert sínum þenara David, og sínu fólke Israel.

## 9. Capitule.

1. Þá Salomon hafde fullkomnad ad byggia Drottins hús, og kongsins hus, og allt sem hann gyrnteſt, og hann hafde lyst til ad gera,

2. Þá birteſt Drottinn hønum í annad sinn, so sem hann birteſt hønum í Gibeon.

3. Og Drottinn sagde til hans: eg hefe heyrt þína bæn og grátbeidne, sem þú hefir grátbænt mig um, og eg hefe helgad þetta hús, sem þú hefir byggt, ad eg vil setia mitt nafn þar inn æfinlega, og mín augu og mitt hiarta skulu þar vera ætíd.

4. Og ef þú gengur fyrer mer, líka sem þinn fader David geck, med einu rettskickudu og rettsinnudu hiarta, og gerer allt þad sem eg hefe boded þer, og helldur mín bodord, og mín rettinde.

4. Þá vil eg stadfesta stól þíns kongsríkis, yfer Israel æfinlega, so sem eg talade til þíns fødurs Davids, og sagde: þig skal eigi vanta einn mann á Israels stóle.

6. Enn ef þer snúed ydur til baka frá mer, þer og ydar børn, og hallded eigi mín bodord, og mín rettinde, sem eg lagda framm fyrer ydur, og fared og þióned ødrum Gudum, og tilbided þá,

7. Þá vil eg uppræta Israel af landenu, þvi sem eg hefe gefed þeim, og þad hús sem eg hefe helgad til míns nafns, þad vil eg forláta frá mínu auglite.

8. Og Israel skal verda ad ordskvid og æfintíre medal allz folks. Og þetta húsed skal nidur brióteſt, so ad aller þeir sem þar framm hiá ganga, þeim mun bloskra, þeir munu blystra, og segia: Þvi hefur Drottinn gert so þessu lande, og þessu húse?

9. Þá mun svarad verda: af þvi, ad þeir forletu Drottinn sinn Gud, hann sem færde þeirra forfedur af Egyptalande, og tóku ser adra Gude, tilbádu þá, og þiónudu þeim, þvi hefir Drottinn leidt allt þetta hid vonda yfer þá.

10. Enn sem þau tuttugu ár voru lidenn, á hverum ad Salomon bygde þau tvø hús, Drottins hús, og kongsins hús.

11. Til hverra Hiram, kongur í Tyro, sende Salomon konge Cedrustré, og grenetre, og gull, epter allre hans osk, þá gaf kong Salomon Hiram tuttugu stade í Galilea lande.

12. Og Hiram fór út af Tyro, ad skoda þá sømu stade, sem Salomon hafde gefed hønum, enn þeir líkudu hønum eigi.

13. Og sagde: hvad er þad fyrer stade, minn broder! sem þú hefur gefed mer? og hann kallade þá Cabul land, inn til þessa dags.

14. Og Hiram hafde sendt kongenum hundrad og tuttugu Centener gullz.

15. Og þad sama er summa af þeim skatte, sem konungurin Salomon tók upp, til ad byggia Drottins hús, og sitt hús, og Millo, og Jerusalems múrveggi, og Hazor, og Megiddo, og Gaser.

16. Þvi Pharao kongur af Egyptalande var komenn upp, og hafde unned Gaser, og brennt hana med ellde, og ihelsleiged þá Cananita sem bivggu í stadnum, og hafde gefed sinne dottur, Salomonis húsfru hann til einnrar gáfu.

17. So uppbygde Salomon Gaser, og þad nedra Beth Horon.

18. Og Batlath, og Thamar, í eydemørkenne í landenu,

19. Og alla stade sem Salomon hafde kornhús í, og so alla þá stade þar hann hafde sína vagna, og þá stade sem hann hafde sína riddara í, og hvar hann hafde lyst til ad byggia, í Jerusalem, í Libanon, og í øllu lande síns herradæmis.

20. Og allt þad folk sem epter var ordid af þeim Amoritum, Hethitum, Pherezitum, Hevitum, og Jebusitum, sem eigi voru af Israels børnum,

21. Þeirra børn, sem þeir letu epter sig í landenu, hvera Israels børn kunnu eigi ad eydeleggia, þá gerde Salomon skattgyllda, allt til þessa dags.

22. Enn af Israels børnum gerde hann eigi neina þræla, helldur let þá vera strídsmenn, og sína þenara, høfdingia, og riddara, og vera yfer sínum vøgnum, og riddørum.

23. Og þeir úmbodsmenn sem voru yfer Salomons erendagerdum, þeir voru fimm hundrud og fimmtíu, sem stiornudu yfer fólkenu, og erendønum frammfylgdu.

24. Og Pharaonis dotter ferdadest upp frá Davids stad, í sitt hús, sem hann hafde uppbygt handa henne, þá bygde hann og so Millo.

25. Og Salomon offrade þrisvarsinnum hvert ár brenneoffre, og þacklætisoffre, yfer því alltare sem hann bygde Drottne, og gerde reykelse yfer því fyrer Drottne, og so vard húsed fullkomnad.

26. Salomon bygde og so skip í Ezeon Gaber, sem liggur hiá Eloth, hiá sioru þess rauda hafsins, í lande Edomita.

27. Og Hiram sende sína þenara til skips, sem voru góder farmenn, og vel reynder til siós, med Salomons þenørum.

28. Og þeir komu til Ophir, og fengu þar fiøgur hundrud og tuttugu centener gulls, og færdu þad Salomon kononge.

## 10. Capitule.

1. Enn sem Salomons rikte, út af nafnenu Drottins, kom fyrer drotninguna af ríke Arabia, þá fór hún, ad freista hans med díúpum spurningum.

2. Og hún kom til Jerusalem med miøg miklum flocki, med ulføllldum, sem báru jurter, og miked gull, og dyrdlega steina. Og sem hún kom inn til Salomons kongs, þá talade hún vid hann, allt þad hún hafde ser ásett.

3. Og Salomon sagde henne þad alltsaman, og þar var ecke huled fyrer kongenum, ad hann sagde henne eigi.

4. Enn sem Drotningenn af Arabía ríke sá allann Salomons vísdom, og húsid, þad hann hafde smídad,

5. Og ́vister til hans bords, og herberginn hans þenara, og embætte þeirra er honum þiónudu, og þeirra klædnad, og hans Skeinkiara, og hans brenneførner, sem hann offrade í Drottins húse, þá gat hún eigi hallded ser leingur,

6. Og sagde til kongsins: Þad er satt, sem eg hefe heyrt í mínu lande um þín efne, og um þinn vísdom.

7. Enn eg villda eigi trúa því, fyrr enn eg kom, og sá þad med mínum augum. Og sió, þad var mer eigi hálfpart afsagt, miklu meire er þinn vísdomur og audæfe enn sú fregn er, sem eg heyrda.

8. Sællt er þitt folk, og þíner þenarar, sem ad alltíd standa fyrer þer, og heyra þinn vísdom.

9. Lofadur vere Drottinn þinn Gud, sem hefir lyst til þín, ad hann hefir sett þig uppá Israels stól, fyrer þvi, ad Drottinn elskar Israel æsinnlega, og sette þig til kongs, ad þu skuler hallda doma og rettinde.

10. Og hún gaf kongenum hundrad og tuttugu centener gulls, og miøg margar kostulegar jurter, og dyrlega gimsteina. Þar komu eigi sídann so margar kostulegar jurter, so sem drottningenn af ríke Arabia, gaf Salomon konge.

11. Þar med skip Hirams, sem færdu gull af Ophir, þau fluttu og miøg mikel hebentre, og dyrlega steina.

12. Og kongurenn let gera pilara af þvi sama hebentre, í Drottins huse, og í kongsins huse, so og hørpur, og psalltara til saungaranna. Þar komu eigi upp frá þvi þvilík hebentre, þau voru eigi helldur sen til þessa dags.

13. Og kongurinn Salomon gaf drottningunne af ríke Arabia, allt þad hun villde gyrnast, og hún umbad, fyrer utann þad sem hann gaf henne sialfur. Og hún snere ser, og ferdadest í sitt land med sínum þenurum.

14. Þad gull sem Salomon feck á einu áre var ad vigt sex hundrud sex og sextíu centener.

15. Um framm þad sem kom frá krømorum, kaupmønnum, og þeim ed jurter selldu, og frá øllum kongum af Arabia, og frá þeim vollduga í løndunum.

16. Og Salomon kongur let gera tvø hundrud skiolldu, af þvi enu besta gulle, og þar voru sex hundrud sticke gulls í hverium skyllde.

17. Og þríu hundrud bucklara af þvi besta gulle, já, þríu pund gulls til hvers bucklara. Og kongurenn lagde þá í húsed, sem gert var af Libanon skoge.

18. Og kongurenn gerde einn storann stól af fíls beinum, og bió hann med því skærasta gulle.

19. Og stóllenn hafde sex trøppur; og høfuded á stólnum var kringlott á bak til, og þar voru bríkur á bádar sídur í kringum sæted, og tvær Leonsinnur stódu hiá bríkunum.

20. Og þar stódu tolf Leon á þeim sex trøppum, á bádar sídur, þvílíkt var alldrei gert í nockru kongsríke.

21. Øll kong Salomons dryckiarker voru af gulle, og øll ker í húsenu Libanon skogs voru og af kláru gulle. Þviad ei þókte silfur nockurs verdt í kongs Salomons tíd,

22. Fyrer þvi, ad kongsins skip, sem voru á siónum med Hirams skipum, þau komu einu sinne á þremur árum, og fluttu gull, silfur, fíls bein, apiniur, og páfugla.

23. So mikladest Salomon kongur ad audæfum, og vísdome, umframm alla adra konga á jørdunne.

24. Og allur heimurenn gyrntest ad siá Salomon, so þeir mættu heyra hans vísdom, sem Gud hafde gefed hønum í hans hiarta.

25. Og hver madur færde hønum gáfur, silfurker, og gullker, klæde, og bryniur, jurter, hesta, og múla, hvert ár.

26. Og Salomon safnade samann vøgnum og riddørum, so hann hafde þusund og fiøgur hundrud vagna, og tolf þusund riddara, og let þá vera í vagnastodunum, og hiá kongenum í Jerusalem.

27. Og kongurenn gerde þad, ad ei var ógnægra silfur í Jerusalem enn steinar, og so mikel Cedrustre sem villufikiutre í dølunum.

28. Salomone voru færder hest-

ar af Egyptalande, og allra handa vara. Og kongsins kaupmenn keyptu þá sømu vøru, og færdu hana af Egyptalande,

29. Já, einn vagn fyrer sex hundrud silfur peninga, og einn hest fyrer hundrad og fimmtíu. So færdu menn þá og øllum kongum þeirra Hethita, og til konganna í Syria fyrer þeirra hønd.

## 11. Capitule.

1. Salomon kongur elskade margar útlendskar kvinnur, dottur Pharaonis, og Moabitiskar, Ammonitiskar, Edomitiskar, Zidonitiskar, og Hethitiskar,

2. Af þesshättar fólke, um hvert ad Drottinn hafde sagt til Israels barna: ganged eigi til þeirra, og láted þær eigi koma til ydar, þær munu vissulega beigia ydar hiørtu epter sínum Gudum. Enn til þessara vard Salomon upptendradur med ástar elsku.

3. Og hann hafde siøhundrud eigennkonur, og þríu hundrud frillur. Og hans kvinnur beigdu hans hiarta.

4. Og þá hann var ordenn gamall, sneru hans kvinnur hans hiarta epter annarlegum Gudum, so ad hans hiarta vard eigi allt med Drottne sínum Gude, so sem hiarta hans fødurs Davids.

5. So geck Salomon epter Astoreth, sem var skúrgod þeirra í Zidonia, og epter Milkom, þeirra Ammonita svívirdingu.

6. Og Salomon gerde þad sem Drottne illa líkade, og epterfylgde eigi Drottni so fullkomlega sem hans fader David.

7. Þá bygde Salomon eina hæd, Chamos Moabita svívirdingu, á þvi fialle sem liggur gegnt Jerusalem, og Molech, svívirdingu þeirra Ammonita.

8. M-d sama hætte gerde Salomon øllum sínum útlendskum kvinnum, hverár reykelse gáfu, og fórner færdu sínum Gudum.

9. Og Drottinn vard reidur vid Salomon, ad hans hiarta vard snúed frá Drottni Israels Gude, sem tveim sinnum hafde birtst hønum.

10. Og baud hønum þetta, ad hann skyllde eigi ganga epter annarlegum Gudum, enn hellt þó eigi þad sem Drottinn baud hønum.

11. Og þvi sagde Drottinn til Salomons. Fyrer þá skulld, ad soddann er sked hiá þer, og þú hefir eigi hallded minn sáttmála og mín bodord, sem eg hefe boded þer, þá vil eg slíta kongsríked frá þer, og gefa þad þínum þenara.

12. Enn þó vil eg eigi gera þad á þínum døgum, fyrer søkum þíns fødurs Davids, enn af þíns sonar hende vil eg slíta þad.

13. Þó vil eg eigi slíta allt ríked í burt; eina kinkvísl vil eg gefa þínum syne, fyrer søkum míns þenara Davids, og so søkum Jerusalem, hvera eg hefe útvaled.

14. Og Drottinn uppvakte Salomone eirn mótstødur mann, Hadad af Edom, hann var af konglegu sæde, sem var í Edom.

15. Þviad í þann tíma sem David var í Edom, og Joab herzhøfdinge fór upp ad jarda þá sem slegner vorn, þá drap hann karlkined í Edom.

16. Þvi Joab, og allt Israels folk, var þar í sex mánude, so lenge sem hann feinge upprætt allt karlkins í Edom.

17. Þá flyde Hadad, og nockrer af þeim Edomita mønnum, af hans fødurs þenørum, med hønum, so

þeir komu í Egyptaland. Enn Hadad var einn ungur sveinn.

18. Og þeir tóku sig upp frá Midian, og komu til Paran, og tóku med ser folk af Paran, og komu í Egyptaland, til Pharao, kongs af Egyptalande. Og hann gaf hønum hús og kost, og gaf hønum eitt land.

19. Og Hadad faun stóra nád fyrer Pharaone, so hann gipte hønum systur sinnar kvinnu Thaphenes drottningar.

20. Og Thaphenes syster fædde hønum Genubath hans son, og Thaphenes fóstrade hann upp í Pharaonis huse, og Genubath var í Pharaonis húse, med al Pharaonis børna.

21. Enn sem Hadad heyrde í Egyptaland, ad David var sofnadur med sínum fedrum, og ad Joab, hans herhøfdinge, var daudur, þá sagde hann til Pharaonis, leyf mer ad fara í mitt land.

22. Enn Pharao sagde til hans: hvad vantar þig hiá mer, ad þú vilt fara í þitt land? hann svarade: ecke, enn lát mig fara.

23. Gud uppvakte og so Salomone einn mótstandara, Reson, son El Jada, sem flúed hafde frá sínum Herra Hadad Eser, kongenum af Zoba.

24. Og hann safnade mønnum imót hønum, og vard einn høfudsmadur fyrer stridsfólkenu, þá David sló þá íhel, og þeir fóru til Damascum, og bjuggu þar, og ríktu í Damasco.

25. Og hann var Israels mótstandare, so lenge sem Salomon lifde. Pad er sá skade sem Hadad leid, og því hafde hann andstyggd á Israel, og vard kongur yfer Syria.

26. So og Jeroboam, sonur Nebat, sem var Ephrateus, af Zareda, Salomons þenare, og hans moder het Zeruga, og var ein eckia; hann upplypte og sinne hende móte kongenum.

27. Enn þad var søkenn, því hann uppreiste sína hønd imóte kongenum, ad þá Salomon bygde Millo, þá lilukte hann Davids síns fødurs stad.

28. Og Jeroboam var einn gódur strídsmadur. Og sem Salomon sá, ad þesse sveinn var duganlegur, þá sette hann hann forstióra alls Josephs húss.

29. Og þad skede so á þeim tíma, ad Jeroboam geck út af Jerusalem, þá kom Ahia spámadur af Silo til hans á veigenum, og hafde einn nyann kyrtel yfer ser, og þeir vóru báder einersamann á akre.

30. Og Ahia tók þann nya kyrtelenn sem hann hafde yfer ser, og reif hann í tólf parta.

31. Og sagde til Jeroboam: tak þá tíu parta til þín, því so seiger Drottinn Israels Gud: siá! eg vil rífa kongsríked af Salomons hende, og gefa þer tíu ættkvíslir.

32. Enn hann skal hafa eina kinkvísl, sökum míns þenara Davids, og vegna borgarennar Jerusalem, sem eg útvalde af øllum Israelis ættum.

33. Søkum þess, ad þeir hafa forláted mig, og tilbeded Astoroth, Gud Zidoniorum, Chamos, Moabita Gud, og Milkom, Ammons barna Gud, og hafa eigi genged á mínum vegum, ad gera hvad mer var þægelegt, ad hallda mín bodord, og rettinde, so sem David hans fader.

34. Eg vil eigi taka allt ríked af hans hende, helldur vil eg gera hann ad høfdingia alla hans lífdaga, fyrer sakir Davids míns þenara, hvern

eg útvalda, hver ad hellt mín bodord og rettinde.

35. Af hans sonar hende vil eg kongsríked taka, og gefa þer tíu ættkiýsler.

36. Enn hans syne eina kinkvísl, so ad David minn þenare hafe ætíd eitt liós fyrer mer í Jerusalems borg hvera eg útvalde mer, so ad eg sete þar mitt nafn.

37. Enn þig vil Eg nú taka, ad þú skallt stiorna yfer øllu sem þitt hiarta befir gyrnd á, og þú skallt vera kongur yfer Israel.

38. Ef þú hlyder nú øllu því sem eg byd þer, og gengur á mínum vegum, og gerer þad sem mer er þægelegt, so ad þú hallder mín rettinde og bodord, so sem David minn þenare gerde, þá vil eg vera med þer, og byggia þer eitt stadfast hús, sem eg byggde David, og eg vil gefa þer Israel,

39. Og Eg vil nidur þrickia Davids sæde þess vegna, enn þó eigi eylíflega.

40. Og Salomon leitade vid ad drepa Jeroboam. Þá tók Jeroboam sig upp, og flyde í Egyptaland, til Sisak, kongsins í Egyptalande, og var í Egyptalande, allt til dauda Salomonis.

41. Enn hvad sem meira er ad seigia um Salomon, og allt hvad hann hefir gert, og hans speke, þad er skrifad í Chronicunne um Salomon,

42. Enn sá tíme sem Salomon var kongur í Jerusalem yfer øllum Israel, þad voru fiørutíu ár.

43. Og Salomon sofnade med sínum fedrum, og vard jardadur í borg síns fødurs Davids, og hans sonur Roboam vard kongur í hans stad.

## 12. Capitule.

1. Og Roboam fór upp til Sichem, þviad allur Israel var komenn til Sichem, ad taka hann til kongs.

2. Og Jeroboam, sonur Nebat, frette þetta, þá hann enn var í Egyptalande, hvert hann hafde flúed fyrer Salomon konge, og var í Egyptalande.

3. Og þeir sendu í burt, og letu kalla hann. Og Jeroboam, og allur Israels søfnudur komu og tøludu vid Roboam, og þeir søgdu.

4. Þinn fader gerde vort ok ofhardt, so ger nú þá hordu þiónustu, og þad þunga ok lettara, sem hann lagde uppá oss, þá vilum ver vera þer undergefner.

5. Enn hann sagde til þeirra: fared burt allt til þess þridia dags, og komed so aptur til mín. Þá geck fólked í burt.

6. Roboam kongur hellt rád vid ølldungana, sem stódu fyrer hans fødur Salomone, þá hann lifde, og sagde: hvad legged þer til ráds, ad ver kunnum ad gefa þessu fólke eitt andsvar?

7. Þeir søgdu til hans: ef þú villt gera þessu fólke eina þenustu, á þessum deige, og vera þeim til vilia, og hlýda þeim, og gefa þeim gód ord, þá munu þeir verda þer undergefner, alla þína daga.

8. Enn hann yfergaf ølldunganna rád, sem þeir gáfu hønum, og hellt eitt rád med þeim úngu sem upp høfdu alest med hønum, og stódu fyrer hønum.

9. Og hann sagde til þeirra: hvad rád legged þer, ad ver andsvørum þessu fólke, sem sagde til mín: ger þad ok lettara sem þinn fader lagde á oss?

10. Og þeir úngu, sem voru uppvaxner med hønum, søgdu til hans: þú skallt so seigia til folksins, sem seiger til þín: þinn fader gerde vort ok ofþungt, ger þú oss þad lettara,

minn minnste fingur skal vera þickre enn míns fødurs lendar.

11. Nú, minn fader lagde þungt ok á ydur, enn eg vil gera þad enn meira yfer ydur: minn fader straffade ydur med svipum, eg vil straffa ydur med høggormum.

12. Á þeim þrídia deige kom Jeroboam, og allt fólked, fyrer Roboám, so sem kongurenn hafde talad, og sagt: komed aptur til mín á þeim þrídia deige.

13. Og kongurenn gaf fólkenu eitt hardt svar, og forlet þad rád, sem ølldungarner gáfu hønum,

14. Og talade vid þá epter ráde hinna úngu, og sagde: minn fader gerde ydart ok þungt, enn eg vil gera þad enn meira yfer ydur; minn fader straffade ydur med svipum, enn eg vil straffa ydur med høggormum.

15. So hlydde kongurenn eigi fólkenu, þvi Drottinn snere þvi so, ad hann villde stadfesta sitt ord, þad hann talade til Jeroboam, sonar Nebat, fyrer Ahia af Silo.

16. Enn sem allur Israel sá þad, ad kongurenn villde eigi heyra þá, þá gaf fólked kongenum andsvar, og sagde: hvada hlut eigum ver under David, eda arfleid under syne Isai? Israel! far þú til þinna heimela, enn siá þú til þíns húss David! so geck Israel til sinna heimela.

17. Ad Roboam ríkte eigi utann yfer Israels børnum, þeim sem ad binggu í Juda borgum.

18 Og þá kongurinn Roboam sende Adoram sinn rentumeistara út, þá grytte allur Israel hann íhel med steinum. Enn Roboam kongur ste skyndelega á einn vagn, og flude til Jerusalem.

19. J soddann máta fell Israel frá Davids húse, allt til þessa dags.

20. Enn sem allur Israel heyrde nú, ad Jeroboam var aptur komenn, þá sendu þeir út, og letu kalla hann til alls safnadarins, og settu hann til kongs yfer allann Israel. Og þar fylgde engenn Davids húse, utann alleina kinþáttur Juda.

21. Enn sem Roboam kom til Jerusalem, þá safnade hann samann øllu húse Juda, og Benjamins kinkvísl, hundrad og áttatíu þusunder ungra strídsmanna, ad beriast á móte Israels húse, og færa ríked aptur under Roboam Salomons son.

22. Enn Guds ord kom til Semaia Guds manns, og sagde:

23. Tala þú til Roboam, Salomons sonar, Juda konungs, og til alls hússens Juda, og Benjamin, og til þess annars folksins, og seig.

24. So seiger Drottinn: eigi skulud þer fara upp og beriast á móte ydrum brædrum, Israels børnum, fare hver madur heim aptur, þvi þetta er sked af mer. Og þeir hlyddu Drottins orde, og sneru aptur, ad ganga í burt, so sem Drottinn hafde sagt.

25. Enn Jeroboam bygde upp Sichem á fiallenu Epphraim, og bió þar, og hann fór þar frá, og uppbygde Pnuel.

26. Enn Jeroboam hugsade í sínu hiarta, kongsríked mun falla aptur under Davids hús.

27. Ef fólked skal fara upp ad færa fórner í Drottins húse til Jerusalem, og folksins hiarta mun snúa ser til þeirra Herra, Roboam Juda kongs, enn slá mig íhel, og falla aptur under Roboam kong Juda.

28. Og kongurenn hellt eitt rád, og gerde tvo kálfa af gulle, og sagde til þeirra: þad er ydur ofþungt ad fara upp til Jerusalem: siá! þar

eru þíner Guder, Israel! sem leid-
du þig af Egyptalande.
29 Og hann sette þann eina í
BethEl, enn annann sette hann í
Dan.
30. Og þetta vard til syndar,
Þvíad fólked geck fyrer þann eina
allt til Dan.
31. Hann gerde og eitt hús á
hædønum, og sette til presta af þeim
hinum minnstu háttar á medal
folksins, hverer ad eigi voru af Levi
børnum.
32. Hann sette og eitt hátídar
halld á þeim fimmtanda deige þess
áttunda mánadar, líka sem þá há-
tídena í Juda, og færde fórner yfer
alltared. So gerde hann og í Beth
El, ad menn offrudu til þeirra kál-
fa sem hann hafde gert. Og hann
sette presta í Bethel til þeirra hæda
sem hann hafde gert.
33. Og hann færde fórner yfer
það alltare (sem hann hafde gert)
í BethEl, þann fimmtanda dag í
þeim áttunda mánude, hvad hann
siálfur upphugsade af sínu hiarta,
og hann sette Israels børnum há-
tíder, og offrade á alltarenu, ad
menn skylldu brenna reykelse.

## 13. Capitule.

1. Og siá, einn Guds madur af
Juda kom til BethEl, fyrer ord
Drottins, og Jeroboam stod hiá
alltarenu ad brenna reykelse.
2. Og hann hrópade í gegn all-
tarenu, fyrer Drottins ord, og sag-
de: alltare! alltare! so seiger Drott-
inn: siá! Davids húse skal fædast
einn sonur, ad nafne Josia, hann
mun offra á þer hædanna prestum,
hverer ad gera reykelse á þer, og
hann mun brenna manna beinum
á þer.
3. Og á þeim sama deige gaf
hann eitt furduteikn, og sagde: það
er furdann þar til, ad Drottinn ta-
lade þetta: siá! alltared skal rifna,
og askann nidur hristast sem á því
er.
4. Sem kongurenn heyrde nú ord
þessa Guds manns, sem kallade í-
móte alltarenu í BethEl, þá rette
hann út sína hønd hiá alltarenu, og
sagde: gríped hann. Og hans hønd
visnade, sú hann útretta á móte
hønum, og hann gat eigi dregid
hana aptur ad sér.
5. Og alltared klofnade, askunn
hristest og nidur af alltarenu, epter
því furduteikne sem Guds madur-
inn hafde gefed fyrer ord Drottins.
6. Og kongurenn svarade, og sag-
de til þessa Guds manns: ákalla
Drottins þíns Guds auglit, og bid
fyrer mer, so ad mín hønd kome til
mín aptur. Þá tilbad sá Guds mad-
ur auglit Drottins, og kongsins
hønd kom til hans aptur, og vard
so sem ádur var hún.
7. Og kongurenn talade vid þann
Guds mann, kom heim med mer,
og nær þig, eg vil gefa þer eina
gáfu.
8. Enn Guds madurinn sagde til
kongsins: þó þú villder gefa mer
hálfannpartinn af þínu huse, þá
kem eg þó eigi med þer. Því eg
vil eigi eta braud, ne drecka vatn, í
þessum stad.
9. Því það er mer so boded fyrer
ord Drottins, og sagt: þú skallt ei
eta braud, ne drecka vatn, og eigi
helldur koma aptur um þann veg
sem þú fórst um,
10. Og hann fór um annann
veg, og kom eigi aptur um þann
veg sem hann hafde komed til Beth
El.
11. Og þar bió einn gamall spá-
madur í BethEl, hans sonur kom
til hans, og greinde hønum alla þá
gerninga sem sá Guds madur hafde
framed þann dag í BethEl, og þau

ord sem hann hafde talad vid kongenn, og þeir søgdu sínum fødur frá þeim.

12. Og þeirra fader sagde til þeirra: hvar er vegurenn sem hann ferdadest um? og hans syner vísudu hønum vegenn, þann sem sá Guds madur hafde fared, og komenn var af Juda.

13. Þá sagde hann til sinna sona: sødled minn asna. Sem þeir høfdu asnann sødlad, þá reid hann þar á,

14. Og fór epter þeim Guds manne, og fann hann sitiande under einne eik, og sagde til hans: ert þú sá Guds madur sem komenn er frá Juda? hann sagde: já.,

15. Hann sagde til hans: kom heim med mer, og et braud.

16. Hann svarade: eigi má eg snúa aptur med þer, og koma med þer, eg vil ei helldur eta braud, ne drecka vatn med þer í þessum stad.

17. Þvi so er sagt til mín fyrer Drottins ord: þú skallt hverke eta þar braud, ne drecka vatn; þú skallt eigi fara aptur um þann sama veg sem þú fórst.

18. Hann svarade hønum: eg em og so einn spámadur so sem þú, og einn engell talade vid mig fyrer Drottins ord, og sagde: leid þú hann aptur heim med þer, so ad hann ete braud og drecke vatn.

19. Enn han laug ad hønum, og hann snere aptur med hønum, so ad hann át braud, og drack vatn, í hans húse.

20. Nú sem þeir sátu til bords, þá kom Guds ord til spámannsins, hver ed hann hafde aptur leidt.

21. Og hann kallade til þess Guds manns, sem var komenn af Juda, og sagde: so seiger Drottinn, søkum þess ad þú varst munne Drottins óhlydugur, og hellst eigi þad bodord sem Drottinn þinn Gud baud þer.

22. Og þú snerer aptur, og átst braud, og drackst vatn, í þeim stad sem hann sagde þer af, þú skallt þar hverke eta braud, ne drecka vatn; þar fyrer skal þinn líkame eigi koma í þinna fedra grøf.,

23. Enn sem hann hafde eted braud, og drucked, þá var sødladur spámannsins asne þess sem hønum hafde aptur snúed.

24. Og þá hann fór, fann eitt Leon hann á veigenum, og drap hann. Og hans líkame lá kollkastadur á veigenum, og asnenn stód hiá hønum, og Leoned stód hiá líkamanum.

25. Og sem menn gengu þar framm hiá, sáu þeir líkamann kollkastadann á gotunne, og Leoned standanda hiá líkamanum. Og þeir komu, og søgdu þad í stadinu, þar sem sá gamle spámadur bió í.

26. Sem spámadurenn heyrde þetta, sá hønum hafde aptur snúed, þá sagde hann: þad er sá Guds madur, sem Drottins munne var óhlydugur, þvi gaf Gud hann Leonenu, ad þad sundur myrde og dræpi hann epter þvi orde, sem Drottinn sagde hønum.

27. Og hann sagde til sinna sona: sødled minn asna. Og sem þeir høfdu sødlad hann,

28. Ferdadest hann af stad, og fann hans líkama nidurkastadann á veigenum, og asnann, og Leoned standa hiá líkamanum. Og Leoned hafde eigi þar eted af líkamanum, og eigi helldur sundur rifed asnann.

29. Þá tók spámadurenn þess Guds manns líkama upp, og lagde hann á asnann, og flútte hann aptur, og kom í þess gamla spámanns borg, ad þeir skyldu gráta þar, og jarda hann.

30. Og hann lagde líkamann í sína grøf, og þeir gretu yfer hønum, auvi! broder!

31. Og sem þeir høfdu jardad hann, þá sagde hann til sinna sona: þá eg andast, þá skulud þer jarda mig í þessare grøf, sem þesse Guds madur er grafenn í, og legged mín bein hiá hans beinum.

32. Þvi þad mun ecke sem hann hefir hrópad fyrer Drottins ord, móte alltarenu í BethEl, og imóte øllum húsum hædanna, sem ad eru í Samarie borgum.

33. Jeroboam snere ser eigi frá sínum vondum vegum epter at þetta skede, helldur spillte hann ser, og gerde aptur presta á hædunum, af þeim minnstu háttar mønnum medal folksins; og hver sem ad hønum þocknadest, þess hønd fyllte hann, og sá vard presturá hædønum.

34. Og þetta vard Jeroboams húse til syndar, so ad hann fordiarfadest, og vard afmádur af jørdunne.

## 14. Capitule.

1. Á þeim tíma vard Abia, sonur Jeroboams, siúkur.

2. Og Jeroboam sagde til sinnar kvinnu: tak þig upp, og breit þínum búninge, so ad engenn merke ad þú sert Jeroboams kvinna, og far burt til Silo. Siá! þar er Abia spámadur, sem sagde mer fyrer, ad eg skyllde verda kongur yfer þessu folke.

3. Og tak tíu braud, og køkur, med þer, og eina krús med hunángi, og gack til hans, ad hann seige þer, hvernenn ganga mune sveinenum.

4. Og Jeroboams kvinna gerde so, bió sig til, og geck burt til Silo, og kom í hús Abia. Enn Abia kunne eigi ad siá, þvi hans augu voru dimm af elle.

5. Enn Drottinn sagde til Abia: siá! Jeroboams húsfru kemur, ad hún spyrie þig nockurs hlautar um sinn son, þvi hann er siúkur. Þar fyrer tala vid hana so og so.

6. Enn sem hún kom nú inn, let hún sem være hún ønnur enn hún var. Og er Abia heyrde þytenn hennar fóta, ganganda inn um dyrnar, þá sagde hann: kom her inn þú Jeroboams kvinna! þvi villt þú dyliast so sem ókunnug? eg em sendur til þín einn hardur sendebóde.

7. Far þú og seig til Jeroboam, so seiger Drottinn Gud Israels: eg hefe upphafed þig af fólkenu, og sette þig høfdingia yfer mitt folk Israel.

8. Og eg sleit konungsríked frá Davids húse, og gaf þer þad. Enn þú hefir eigi vered so sem minn þenare David, hver ad hellt mín bod, og geck epter mer af øllu hiarta, gerande alleina hvad mer var þægelegt.

9. Enn þú hefir gert illa framm yfer alla þá sem vered hafa fyrer þig. Þú fórst og gerder þer annarlega Gude, og steyptar minder, ad reita mig þar med til reide, og kastader mer so á bak þer aptur.

10. Siá! þar fyrer vil eg leida ólucku yfer Jeroboams hús, og uppræta af Jeroboam jafnvel allt karlkyn, þann innelukta og yfergefna í Israel. Og eg vil burt sópa epterkomendum Jeroboams húss, so sem þá madur burtu sópar óklárende, þar til þad er aldeilis úte um hann.

11. Hver sem deyr í stadnum af Jeroboams, þann skulu hundar upp eta; enn hver sem deyr úti á akre þann skulu fuglar himensins upp eta, þvi Drottinn hefir talad þetta.

12. So tak þig nú upp, og gack heim. Og þá þinn fótur stígur innann borgar, þá mun barned deya.

13. Og allur Israel skal gráta hann. Og þeir munu grafa hann, þviad alleina þesse af Jeroboam skal grøft ødlast, søkum þess, ad þar hefir nockurt godt fundest med hønum, fyrer Drottne Israels Gude, í Jeroboams húse.

14. Drottinn mun uppvekia ser einn konung yfer Israel, hann skal afmá Jeroboams hús á þeim deige. Og hvad er nú gert?

15. Drottinn skal slá Israel, líka sem reir hrærest í vatne, og hann skal uppræta Israel af þessu gódu lande, sem hann gaf þeirra fedrum, og hann mun burt dreifa þeim yferum vatned, søkum þess, ad þeir gerdu ser lunda, ad styggia Drottinn þar med.

16. Og hann mun yfergefa Israel fyrer Jeroboams synda saker, sem syndgadest, og kom Israel til ad syndgast.

17. Og Jeroboams húsfrú stód upp, geck burt, og kom til Thirza. Enn sem hún ste yfer þrøskolldenn hússins þá andadest sveinenn.

18. Og þeir jørdudu hann, og allur Israel gret hann, epter Drottins orde, sem hann hafde mællt fyrer sinn þenara, Ahia spámann.

19. Hvad meira er ad seigia um Jeroboam, hvernenn hann bardest, og rikte: siá! þad er skrifad í Israels konunga Chronicu.

20. Enn sá tíme, sem Jeroboam rikte, var tvø og tuttugu ár, og hann sofnade med sínum fedrum, og hans sonur, Nadab, vard kongur í hans stad.

21. So var Roboam, sonur Salomons, kongur í Juda. Roboam var fiørutiu ára gamall þá hann vard kongur, og rikte sextan ár í Jerusalems borg, hvera ed Drottinn útvalde af øllum Israels ættum, ad hann villde þar setia sitt nafn. Hans moder het Naema, ein Ammonitisk (kvinna).

22. Og Juda gerde þad sem Drottne illa líkade, og þeir uppvoktu hann meir til vandlætis, enn allt er þeirra forfedur høfdu gert, med þeirra syndum sem þeir gerdu.

23. Þvi þeir uppbygdu ser og so hæder, stólpa, og lunda, á øllum háfum hædum, og under øllum blómgudum triám.

24. Þar voru og saurlifnadarmenn í landenu, og þeir frømdu allra heidingia svívirdingar, hvera ad Drottinn hafde útrymt fyrer Israels børnum.

25. Enn á því fimmta áre Roboams kongs, þá fór Sisak, Egyptalands kongur, upp á móte Jerusalem.

26. Og tók fiársiodina úr Drottins húse, og úr kongsins húse, og allt þad sem þar var ad taka, og hann tók alla þá gullskiølldu, sem Salomon hafde láted gera.

27. Í hverra stad kongurinn Roboam let gera eyrskiølldu, og feck þá í hendur þeim ædstu hirdmonnunum, sem geymdu dyrnar á kongsins húse.

28. Og so opt sem kongurenn geck í Drottins hús, þá báru hirdmennerner þá, og báru þá sídann aptur í hirdmanna herberged.

29. Hvad sem meira er ad seigia um Roboam, og allt þad hann gerde, siá! þad er skrifad í Juda konunga Chronicu.

30. Og ætíd var þar stríd millum Roboam og Jeroboam, á medan þeir lifdu.

31. Og Roboam sofnade med sínum fedrum, og var jardadur í Davids borg, hiá sínum fedrum. Hans moder het Naema, Ammonitisk. Og Abiam, hans sonur, vard kongur í hans stad.

## 15. Capitule.

1. A þvi átianda áre Jeroboam kongs, sonar Nebat, vard Abiam kongur í Juda.

2. Og hann ríkte þriú ár í Jerusalem. Hans moder het Maecha, dotter Abisalom.

3. Og hann geck í øllum síns fødurs syndum, sem hann hafde gert fyrer hønum, og hans hiarta var eigi rettskickad fyrer Drottne hans Gude, so sem Davids hans fødurs hiarta.

4. Enn Drottinn hans Gud gaf hønum liós í Jerusalem, vegna Davids, ad hann uppvekte hans son epter hann, og vidhellde hønum í Jerusalem.

5. Søkum þess, ad David gerde þad sem Drottne vel þocknadest, og veik eigi frá øllu þvi sem hann baud hønum, alla hans lífdaga, frateknum málum Uria Hethei.

6. Og þar var ófridur í millum Roboam og Jeroboams alla þeirra lífdaga.

7. Enn þad fleyra sem seigia má um Abiam, og allt þad sem hann gerde, siá! þad er skrifad í Juda konga Chronicu. Og þar var ófridur á millum Abiam og Jeroboam.

8. Og Abiam sofnade med sínum forfedrum, og þeir grófu hann í Davids borg. Enn Asa, hans sonur, vard kongur í hans stad.

9. Þá Jeroboam hafde vered kongur yfer Israel í tuttugu ár, vard Asa kongur í Juda.

10. Og hann ríkte eitt ár og fiørutíu í Jerusalem. Hans moder het Maecha, dotter Abisalom.

11. Og Asa gerde þad sem Drottne vel líkade, so sem hans fader David.

12. Og hann rak úr lande hórkarla og tók af øll skúrgod, sem hans fedur høfdu gert.

13. Auk þess affette hann sína modur Maecha ad vera drottning, af þvi hún hafde gert Miplezeth í lundenum, og Asa upprætte hennar Miplezeth, og uppbrennde hann í læknum Kedron.

14. Enn þeir tóku ei hædernar í burt. Þó var Asas hiarta rett fyrer Gude um alla hans daga.

15. Og þad gull og silfur, og ker, sem hans fader hafde helgad, og hvad sem helgad var til Drottins húss, þad færde hann inn.

16. Og þar var ófridur í millum Asa, og Baesa, Israels kongs, alla þeirra daga.

17. Enn Baesa, Israels kongur, fór upp á móte Juda, og bygde Rama, so ad engenn skyllde komast hverke út ne inn af síðu Asa, Juda kongs.

18. Þá tók Asa allt þad gull og silfur sem epter var orded af fiársiódum í húse Drottins, og af fiársiódunum í kongsins húse, og feck sínum sveinum þad í hendur, og sende þá til Benhadad, sonar Thabrimon, sonar Hesion, kongsins í Syria, sem bió í Damasco, og let seigia hønum.

19. Þar er einn sáttmále millum mín og þín, á millum míns fødurs og þíns fødurs. Og þvi sende eg þer eina gáfu, silfur og gull, ad þú bregder upp þeim sáttmála, sem þú hefir med Israels kongi Baesa, so hann burtu fare frá mer.

20. Benhadad hlydde Asa konge, og sende sína hofudsmenn imóte Israels borgum, og sló Jjon og Dan, og Abel Beth Maecha, allt Cineroth, í øllu Nephthali lande.

21. Enn sem Baesa þad heyrde þá let hann af ad byggia Rama, og fór aptur til Thirza.

22. Sídann let kongurinn Asa úthrópa um allann Juda: her skal

engenn vera frí. Og þeir tóku steinana og tren í burt frá Rama, sem Baesa hafde bygt med, og kongurinn Asa bygde þar med Geba Benjamin, og Mizpa.

23. Hvad meira er ad seigia af Asa, og um alla hans magt, og allt þad hann gerde, og þá stade sem hann bygde: siá! þad er skrifad í Juda konga Chronicu, utann þad hann vard siukur í sínum fótum í sinne elle.

24. Og Asa sofnade burt med sínum forfedrum, og var jardadur med sínum fedrum, í síns födurs Davids stad, og hans sonur Josaphat tók kongdom í hans stad.

25. Og Nadab, sonur Jeroboams, vard kongur yfer Israel, á þvi ödru áre Asa Juda kongs, og hann rikte yfer Israel í tvö ár.

26. Og hann gerde þad sem Drottne illa likade, og fór ferel síns födurs, og í hans syndum, med hverjum hann kom Israel til ad syndgast.

27. Enn Baesa, sonur Ahia, af Isaschars húse, gerde eitt samband á móte honum, og sló hann í Gibethon, sem ad heyrde til þeim Philisteis, þviad Nadab og allur Israel sat þá um Gibethon.

28. So sló Baesa han ihel, á þvi þridia áre, epter þad ad Asa vard kongur í Juda, og vard so kongur í hans stad.

29. Enn sem hann var ordenn kongur, þá sló hann gervallt Jeroboams hús ihel, og let ecke epter lifa af Jeroboam, þad sem anda hafde, þar til hann hafde eydelagt hann, epter Drottins orde, sem hann hafde talad fyrer Ahia sinn þenara af Silo.

30. Sökum Jeroboams synda, þeirra sem hann gerde, og med hverjum hann kom Israel til ad syndgast, fyrer þá tilreitne, med hverre hann styggde Drottinn Israelis Gud.

31. Enn hvad meira er ad seigia um Nadab, og allt þad sem hann gerde: siá! þad er skrifad í Israelis kononga Chronicu.

32. Og þar var ofridur millum Asa, og Baesa, Israelis kongs, á öllum þeirra dogum.

33. A þvi þridia áre Asa Juda kongs, var Baesa, sonur Ahia, kongur yfer öllum Israel, í Thirza, í fiogur og tuttugu ár.

34. Og hann gerde þad sem Drottne illa likade, og geck á Jeroboams vegum, og í hans syndum, med hverum ad hann kom Israel til ad syndgast.

## 16. Capitule.

1. Og ord Drottins kom til Jehu, sonar Hanani, móte Baesa, og sagde:

2. Sökum þess, ad eg hefi upphafed þig af dupte, og sette þig höfdingia yfer mitt folk Israel, og þú geckst á Jeroboams vegum, og komst mínu fólke til ad syndgast, ad þú styggder mig med þeirra syndum.

3. Siá, þá vil eg burt taka epterkomendur Baesa, og hans hús epterkomendur, og eg vil setia þitt hús liká sem hús Jeroboam, sonar Nebat.

4. Hver sem deyr af Baesa í stadnum, þann skulu hundar uppeta; enn hver sem deyr af hans úti á mörkenne, þann skulu himensins fuglar uppeta.

5. Hvad sem meira er ad seigia um Baesa, og hvad hann gerde, og hans magt: siá! þad er skrifad í Israels kononga Chronicu.

6. Baesa sofnade med sínum fedrum, og var jardadur í Thirza.

Og hans sonur Ella vard kongur í hans stad.

7. Og Drottins ord kom fyrer Jehu spámann, son Hanani, yfer Baesa, og yfer hans hús, og á móte øllu þvi vondu sem hann gerde fyrer Drottne, ad styggia hann fyrer sín handaverk, ad hann skyllde verda sem Jeroboams hús, og þar fyrer, ad hann sló hann íhel.

8. A þvi siøtta og tuttugasta áre Asas Judæ kongs, vard Ella, sonur Baesa, kongur yfer Israel, í Thirza, tvø ár.

9. Og hans þenare, Simei høfuds madur yfer helminge af hans vøgnum gerde samband ímóte hønum. Og hann var í Thirza, drack og vard druckenn í huse Arza, sem var fogvite í Thirza.

10. Og Simri kom þar inn, og sló hann íhel, á þvi siøunda og tuttugasta áre Asa, kongs Juda, og vard kongur í hans stad.

11. Enn sem hann var kongur, og sat í sínum stóle, þá sló hann allt Baesa hús, og let engann karlkyns lifa, þar til hans ersingia, og hans frændur.

12. So eydelagde Simri Baesa hús alltsamann, epter orde Drottins, sem hann talad hafde yfer Baesa, fyrer Jehu spámann.

13. Fyrer saker allra synda Baesa, og hans sonar Ella, sem þeir fromdu, og komu Israel til ad syndgast, til ad styggia Drottinn Israels Gud, med þeirra afguda dírkan.

14. Enn hvad meira er ad seigia um Ella, og allt þad hann gerde: þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

15. A þvi siøunda og tuttugasta áre Asa Juda kongs vard Simri kongur í Thirza, í siø daga. Þvi Israels folk sat um Gibethon Philisteanna.

16. Enn sem fólked í herbúdønum heyrde þad, ad Simri hafde gert sambaud, og sleiged kongenn íhel, þá gerde allur Israel, á þeim sama deige, Amri strídshøfudsmann til kongs yfer Israel, í herbúdønum.

17. Og Amri fór upp, og allur Israel med hønum, frá Gibethon, og setteſt um Thirza.

18. Enn sem Simri sá þad, ad þeir mundu vinna stadenn, þá geck hann í høllena, í kongsins huse, og uppbrennde sig siálfann med kongsins huse.

19. Og dó fyrer sínar synder, sem hann hafde gert, ad hann gerde þad sem Drottne illa likade, og geck á Jeroboams vegum, og í hans syndum, sem hann gerde, og kom Israel til ad syndgast.

20. Enn hvad meira er ad seigia um Simri, og hvernenn hann gerde eitt samband: siá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

21. J þann tíma skipte Israel ser í tvenna flocka; helmingur folksins epterfylgde Thibni, syne Ginath, so þeir gerdu hann ad konge: enn sá annar helmingur helt med Amri.

22. Enn þad folk sem fylgde Amri vard aflameira enn þad folk sem fylgde Thibni, syne Ginath, og Thibni deyde, enn Amri vard kongur.

23. A þvi ellefta og tuttugasta áre Asa Judæ kongs vard Amri kongur yfer Israel í tolf ár, og ríkte í Thirza í sex ár.

24. Hann keypte þad fiall Samaria af Semer, fyrer tvo centener silfurs, og bygde uppá fiallenu, og kallade þá borg sem hann reiste

epter Semers nafne, sem var Herra yfer þvi stalle Samaria.

25. Og Amri gerde þad sem Drottne illa likade, og var verre enn aller þeir sem voru fyrer hann.

26. Og geck i øllum Jereboams vegum, sonar Nebats, og i hans syndum, med hverum ad hann kom Israel til ad syndgast, ad þeir styggdu Drottin Gud Israels med þeirra afgudadirdkan.

27. Enn hvad meira er ad seigia um Amri, og allt þad hann gerde, og hans magt sem hann framde: siá! þad er skrifad i Israels konga Chronicu.

28. Og Amri sofnade med sinum fedrum og vard jardadur i Samaria, og hans sonur Achab vard kongur i hans stad.

29. A þvi áttunda og þritugasta áre Asa Juda kongs vard Achab, sonur Amri, kongur yfer Israel, og rikte yfer Israel i Samaria tvø og tuttugu ár.

30. Og gerde þad sem Drottni illa likade, framm yfer alla þá sem vered høfdu fyrer hann.

31. Hann let ser eigi nægia, ad hann geck i syndum Jeroboams sonar Nebats, þar til tók hann Jesabel, dottur EthBaals, kongs af Zidon, ser til eigennkvinnu. Og hann fór ad þióna Baal, og tilbad hann.

32. Og reiste Baal eitt alltare i Baals húse, hvert hann bygde hønum i Samaria.

33. Og gerde einn lund, so ad Achab gerde framar meir ad reita og styggia Drottinn Israels Gud, enn aller adrer Israels kongar, þeir sem vered høfdu fyrer hann.

34. A þessum sama tima bygde Hiel af BethEl Jericho, og þad kostade hans hinn fyrsta son Abiram, þá hann lagde grundvøllenn, og hans yngsta son Segub, þá hann sette portenn, epter Drottins orde, sem hann hafde talad, fyrer Josua, son Nuns.

## 17. Capitule.

1. Og Elias Thesbiter, einn af borgarmønnum Gileads, sagde til Achab: so sannarlega sem Drottinn Israels Gud lifer, fyrer hverum eg stend, þá skal þar hverke koma døgg ne regn i þesse ár, nema eg seige þad.

2. Og ord Drottins kom til hans og sagde:

3. Far burt hedann, og snú þer imóte austre, og fel þig hiá þeim læk Crith, sem rennur i mót Jordan.

4. Og þú skallt drecka af læknum, enn eg hefe boded hrofnønum, ad þeir skulu þar forsorga þig.

5. Og hann geck af stad, og gerde epter orde Drottins, og fór þangad, og sette sig hiá læknum Crith, sem fellur ad Jordan.

6. Og hrafnar færdu hønum braud, og kiøt, bæde morgna og kvølld, og hann drack af læknum.

7. Og þad skede so, nockorum døgum, þar epter, ad lækurenn þornade upp, þviad ecke regn var i landenu.

8. Þá kom Drottins ord til hans, og sagde:

9. Statt upp, og gack til Zarepta, sem liggur hiá Zidon, og vert þar, þvi eg hefe boded þar einnre eckiu, ad hun skal fæda þig.

10. Og hann stód upp, og geck til Zarepta. Og sem hann kom ad stadarportenu: siá! þá var þar ein eckia, og var ad safna ser (brenne) vid upp. Og hann kallade til hennar, og sagde: sæk þú mer líted vatn i kere, so eg meige drecka.

11. Enn sem hún fór ad sækia þad, kallade hann hana, og sagde:

fær mer og einn munnbita brauds-
med.
12. Enn hún svarade: so sann-
arlega sem Drottinn þinn Gud lif-
er, þá hefe eg ecke bakad, utann
miøl, so miked sem hafa má í hnefa
ser í einnre kruckn, og lited vid-
smiør í krús, og siá: eg hefe sam-
ann tínt eitt tre eda tvø, og fer eg
nú inn, ad búa þetta til matar fyr-
er mig og minn son, so ad vid meig-
um eta og deya.
13. Elias sagde til hennar: ótt-
ast eigi, far þú og ger þad sem þu
sagder: enn allt ad einu baka þú
mer þó fyrst líted þar af, og fær mer
þad út hingad; epter þad skalltu
gera mat þer og þínum syne.
14. Þviad so seiger Drottinn Israe-
lis Gud: miøled í kruckunne skal ei-
gi fortærast, og í olin krúsena skal
eigi vanta, allt til þess dags ad
Drottinn skal láta rigna á jørdena.
15. Hún geck í burt, og gerde so
sem Elias sagde: og hann át, og
hún, og hennar hyske, um nockora
tíma.
16. Miøled í kruckunne fortærdest ei-
gi, og vidsmiøred í krusenne vanta-
de eigi, epter ordum Drottins,
sem hann talade fyrer Eliam.
17. Epter þetta sked syktest son-
ur þessarar konu, sem hann giste
hiá, og hans siukdomur vard so
miøg strangur, ad engenn ande var
í hønum framar meir.
18. Og hún sagde til Eliam:
hvad hefe eg med þig þú Guds mad-
ur? þú ert komenn her inn til mín,
ad minna misgerda verde minnst,
og minn sonur yrde deyddur.
19. Hann sagde til hennar: fær
mer hingad þinn son. Og hann
tók hann af hennar skaute, geck upp
á þann sal sem hann bió, og lagde
hann í sína sæng,
20. Akallade Drottinn, og sag-
de: Drottinn minn Gud! hefir þú
og so hriggt þessa eckiu, hverrar
gestur eg em, ad þu ihelslær henn-
ar son?
21. Og hann breidde sig þrim
sinnum ofann yfer sveinenn, og kal-
lade til Drottins, og sagde: Drott-
inn minn Gud! lát þessa barns ønd
koma til þess aptur.
22. Og Drottinn heyrde raust
Eliæ, so ad barnsins ønd kom apt-
ur til þess, og þad vard lifande.
23. Og Elias tók barned, og bar
þad ofann af salnum, í húsed, og
feck þad hans modur, og sagde: siá
þar, þinn sonur lifer.
24. Og kvinnann sagde til Eli-
am: nú veit eg, ad þú ert einn Guds
madur, og ord Drottins í þínum
munne er sannleikur.

## 18. Capitule.

1. Og løngum tíma þar epter þá
kom ord Drottins til Eliam, á því
þridia áre, og sagde: far þu og syn
þig Achab, so eg láte rigna yfer
jordina,
2. Og Elias fór af stad, ad hann
lete Achab siá sig, og þar var miked
hallære í Samaria.
3. Og Achab kallade Abdias, sinn
hofgards meistara, til sín (enn Ab-
dias óttadest hardla miøg Drott-
inn,
4. Þviad þann tíma sem Jesa-
bel foreidde Drottins spámønnum,
þá tók Abdias hundrad spámenn,
og geymde þá í hellerum, her fimm-
tíu, og þar fimmtíu, og forsorgade
þá med braude og vatne).
5. So sagde nú Achab til Abi-
dás: reistu í gegnum landed til
allra rennande brunna og lækia.
Má ske ver mættum finna hey ad
vidhallda hestum og mulum, so ad
kvikfenadurenn deye ei allur:
6. Og þeir skiptu ser út um landed,

ad þeir fære í gegnum þad: Achab
fór alleina einn veg, og Abdias al-
leina þann annann vegenn.

7. Enn sem Abdias var nú á
veg komenn: siá! þá mætte Elias
honum, og sem hann þeckte hann,
þá fell hann framm á sína ásionu,
og sagde: ert þú eigi minn Herra
Elias?

8. Hann sagde: já! far og seig
þínum Herra: siá! Elias er her.

9. Hann svarade: hvad hefi eg
misgert, ad þú villt gefa þinn þena-
ra í hendur Achabs, so hann skule
slá mig íhel?

10. So sannarlega sem Drott-
inn þinn Gud lifer, þá er þar ecke
folk, eda konungsríke, til hvers ad
minn Herra hefir eigi sendt bod,
ad leita epter þer. Og þá þeir sög-
du: hann er eigi her, þá tók hann
einn eid af því kongsríke og fólke,
ad menn hefdu eigi funded þig.

11. Enn nú seiger þú: far af stad
og seig þínum Herra: siá! Elias er
her.

12. Genge eg nú í burtu frá þer,
so tæke Drottins ande þig í burtu,
eg veit eigi hvert, og eg kæme þá og
undervísade þad Achab, og finde þig
þá eigi, þá slæge hann mig íhel.
Enn þinn þenare óttast Drottinn
frá sínum barndome.

13. Er þad eigi heyrum kunnugt
orded mínum Herra, hvad eg ger-
de, þá Jesabel drap Drottins spá-
menn? ad eg falde hundrud af
Drottins spámønnum, her fimm-
tíu, og þar fimmtíu í hellerum, og
eg fædde þá med braude og vatne.

14. Og þú seiger nú, far þú og
seig þínum Herra: Elias er her, so
ad hann sláe mig íhel?

15. Elias sagde: so sannarlega
sem Drottinn Zebaoth lifer, fyrer
hverum eg stend, eg vil láta mig siá
í dag fyrer hønum.

16. Þá geck Abdias burt til móts
vid Achab, og undervísade hønum
þetta. Og Achab geck imóte Elia.

17. Og þá Achab sá Eliam, mæll-
te Achab til hans: ert þu sá sem ad
sturlar Israel?

18. Hann svarade: eigi sturla
eg Israel, helldur þú, og þíns fød-
urs hus, þar med, ad þer forletud
Drottins bodord, og gengud epter
Baal.

19. Nú vel, send þú nú út og lát
samansafna øllum Israel til mín,
og þeim fiorum hundrudum og
fimmtíu Baals prophetum, uppá
fialled Charmel, og þeim fiorum
hundrudum lundanna spámønn-
um, sem eta af Jesabels borde.

20. So sende Achab út á medal
allra Israels barna og samansaf-
nade spámønnønum uppá fialled
Charmel.

21. Þá geck Elias framm til
alls folksins, og sagde: hversu len-
ge halltred þer á bádar sídur? se
Drottinn Gud, þá epterfylged høn-
um, enn se Baal þad, þá gанged
epter hønum. Enn fólked svarade
hønum engu.

22. Þá sagde Elias til folksins:
eg em nú alleina ordenn epter einn
spámadur Drottins, enn Baals spá-
menn eru fiøgur hundrud og fimm-
tíu manna.

23. Fáed oss nú tvo uxa, og lát-
ed þá útvelia hann eina uxann, og
høgga hann í sticke, og leggia hann
á videnn, og láta engann elld þar
ad, so vil eg taka annann uxann,
og leggia hann uppá vidinn, og
eigi helldur leggia þar elld ad.

24. Sídann ákalled þer ydars
Guds nafn, og eg vil kalla á nafn
Drottins. Og hver sá Gud, sem nú
svarar fyrer elldenn, sá skal vera
Gud. Og allt fólked svarade og sag-
de: þad er rett.

25. Og Elias sagde til Baals spámanna: útveled ydur nú einn uxa, og gered þad fyrre, þvi þer erud marger, og kalled á ydars Guds nafn, og legged engann elld þar ad.

26. Og þeir tóku þann uxa sem hann feck þeim, og biuggu hann til, og kølludu á Baals nafn, frá morgne og inn til middags, og søgdu: Baal bænheyr oss! enn þar var hverke (nockur) raust ne svar, og þeir høllttrudu umkring alltared, þad þeir høfdu gert.

27. Enn sem komenn var middagur, þá spottade Elias þá, og sagde: kalled hátt, þvi hann er einn Gud, hann hefir nockud ad hugsa, eda gera, eda hann er farenn heimann, edur kann ske hann sofe, so ad hann vakne.

28. Og þeir kølludu hátt, og særdu sig med knífum, og ølum, sem sidur var þeirra til, þar til ad þar kom blód ut epter.

29. Enn sem midmundi var nú lidenn, þá spádu þeir, þar til ad matoffurs tíme var komenn, og þar var enginn raust, ne svar, eda nockur sem gaumgæfde.

30. Þá sagde Elias til alls folksins: kome allt fólked, hingad til mín. Og sem allt fólked kom til hans: þá bætte hann upp þad Drottins alltare sem nidur var broted,

31. Og tók tolf steina, epter ættartølu Jacobs barna (til hvers ad Drottins ord skede, og sagde: þú skallt kallast Israel).

32. Og hann bygde eitt alltare í nafne Drottins, af þeim steinum, og hann gerde eina grøf kringum alltared, so vída sem er tveggia kornmæla rúm.

33. Og tilbió vidinn, og sundrade uxann í sticke, og lagde hann ofann á videnn,

34. Og sagde: sækid fióra kruckur fullar med vatne, og ausid yfer brennefórnena, og yfer videnn. Og hann sagde: gered þad enn annad sinn. Og þeir gerdu so í annad sinn. Og hann sagde: gered þad enn í þridia sinne. Og þeir gerdu so í þridia sinni.

35. So ad vatned rann í kringum alltared, og grøfinn vard og full af vatnenu.

36. Og þegar tíme var komenn ad offra matoffre, þá geck Elias spámadur framm, og sagde: Drottinn, Abrahams, Isaacs og Israels Gud! lát þad í dag kunnugt verda, ad þú ert Gud í Israel, og eg þinn þenare, og ad eg hafe allt þetta gert, epter þínu orde,

37. Bænheyr mig Drottinn! bænheyr mig! so ad þetta folk meige vita, ad þú Drottinn ert Gud, og ad þú her epter umsnúer þeirra hiortum!

38. Þá fell elldur Drottins nidur, og fortærde brenneoffrinu, vidnum, steinunum, og jørdunne, og sleikte vatned af grøfinne.

39. Enn sem allt fólked sá þetta, fell þad nidur á sínar ásiónur, og sagde: Drottinn er Gud! Drottinn er Gud!

40. Þá sagde Elias til þeirra: høndled Baals spámenn, so ad engenn af þeim komist undann. Og þeir høndludu þá. Og Elias færde þá ofann til lækiarins Kison, og slátrade þeim þar.

41. Og Elias sagde til Achab: far þú upp, et og dreck, þvi þad þytur sem miked regn villde koma,

42. Enn sem Achab fór upp, ad eta og drecka, þá geck Elias efst uppá Charmel, og beigde sig til Jardar, og sette sitt høfud á millum sinna kniá,

43. Og hann sagde til síns þenara: gack upp, og horf í haf út. Hann

geck upp, og hugde ad, og sagde: þar er ecke (ad siá). Hann sagde: guck í burt aptur sio sinnum.

44. Og í siounda sinne sagde hann: siá! þar gengur eitt lítid sky upp úr hafinu, líka sem eins manns hønd. Hann sagde: far upp, og seig þú Achab: spenn f. fyrer (þinn vagn) og far ofann, a ad regnid falle eigi á þig.

45. Og ádur enn menn varde, vard himinenn dimmur af skyum og vedre, og þar kom eitt ákaft regn. Enn Achab fór, og ferdadist til Jesreel,

46. Og hønd Drottins kom yfer Eliam, og hann gyrdte sig um sínar lendar, og hlióp framm undann Achab, þar til hann kom í Jesreel.

19. Capitule.

1. Og Achab sagde Jesabel alla þá hlute sem Elias hafde gert, og hvernveg hann hafde dreped gálla Baals spámenn med sverde.

2. Þá sende Jesabel eitt bod til Eliam, og let seigia hønum: gud-erner gere mer þad og þad, ef eg gere ei á morgun þennann tíma þína sál líka sem eina af þeirra sálum.

3. Enn sem hann sá þad, bió hann sig, og geck burt, þangad sem hann villde, og kom til BerSeba í Juda, og let sinn þenara þar epter vera.

4. Enn hann geck burt í eydemørkena, eina dagleid, og kom þar inn, og sette sig under eitt einebertre, og bad, ad sín sál mætte deya, og sagde: þad er nóg. Svo tak nú mína sál; Drottinn! eigi em eg betre enn míner forfedur.

5. Og hann lagde sig under einebertred, og sofnade. Og siá! engellenn hrærde vid hann, og sagde til hans: statt upp, og snæd.

6. Og hann leit kringum sig, og siá! þar lá eitt steikt braud hiá hans høfde, og ein kanna med vatne. Og sem hann hafde eted og drucked, þá lagde hann sig aptur ad sofa.

7. Og engell Drottins kom aptur í annad sinn, og tók á hønum, og sagde: statt þú upp, og snæd, þviad þú átt langann veg fyrer høndum.

8. Og hann stód upp, át og drack, og geck í krapte þeirrar fædu fiorutíu daga, og fiorutíu nótta, allt til Guds fialls Horeb.

9. Og hann kom þar inn í einn Heller, og var þar um nóttena. Og siá! ord Drottins kom til hans, og sagde til hans: hvad gerer þú her, Elia?

10. Hann sagde: eg hefe vandlætt vegna Drottins Guds Zebaoth, þviad Israels børn hafa yfergefed þinn sáttmála, og nidur broted þín altare, og sleiged þína spámenn íhel med sverde, og eg er alleina epter ordenn, og þeir sitia um ad taka mig af lífe.

11. Hann sagde: far út hedann, og gáck fyrer Drottinn, upp á fiallet: og siá! ad Drottinn geck framm hiá, og eitt miked og sterkt vedur, hvert ed fiollenn klauf, og bergenn braut í sundur fyrer Drottne, enn Drottinn var eigi í vedrenu. Epter vedred kom einn jardskiálfte. Enn Drottinn var eigi í jardskiálftanum.

12. Enn epter jardskiálftann kom einn elldur, enn Drottinn var eigi í elldenum, og epter elldenn kom þar einn hægur og miúkur vindblær.

13. Enn sem Elias þad heyrde, þá skyllde hann sínu andlite med sinne kápu, og geck út og steig framm í dyrnar á hellernum, og siá! þar kom ein raust til hans og sagde: hvad gerer þu her Elia?

14. Hann sagde: eg hefe vandlætt vegna Drottins Guds Zebaoth, þvi Israels børn hafa forláted þinn sáttmála, nidurbroted þín alltare, og íheilsleiged þína spámenn med sverde, og eg einnsamann em epter ordenn, og þeir sitia um ad taka mig af lífe.

15. Drottinn sagde til hans: far þú aptur þinn veg um eydemørku, til Damoscum, og gáck þar inn, og smyr Hasael til kongs yfer Syriam.

16. Og Jehu, son Nimsi, til kongs yfer Israel, og Elisa, son Saphat, af Abel Mehola, til eins spámanns í þinn stad,

17. Og þad skal ske, ad hver sem kemst undann sverde Hasael, þann skal Jehu drepa, og hver sem setur undann sverde Jehu, þann skal Elisa drepa.

18. Og eg vil epterláta sio þusund í Israel, sem ad eru øll þau kne sem sig hafa eigi beigt fyrer Baal, og alla munna sem eigi hafa kyst hann.

19. Og hann geck þadann, og fann Elisa, son Saphat, hann var ad eria undann ser med tolf pørum uxa, og hann var siálfur á millum þeirra tolf. Og Elias geck til hans, og lagde sinn møttul yfer hann.

20. Enn hann yfergaf uxana, og rann epter Elia, og sagde: leyf mer ad minnast vid minn fødur og modur, sídann vil eg eptersylgia þer. Hann svarade hønum: far þú, og kom aptur, þvi eg hefe nockud ad gera med þig.

21. Og hann hliop aptur frá hønum, og tók eitt par uxa, og offrade þeim, og saud kiøted med tiánum sem voru á uxønum, og gaf fólkenu þad ad eta. Sídann stód hann upp, fylgde Elia epter, og þiønade hønum.

## 20. Capitule.

1. Og BenHadad, kongur í Syria, dró samann alla sína magt, og þar voru tveir og þriátíu kongar med hønum, og hestar, og vagnar, og hann fór upp, og settest um Samariam, og stridde imóte henne.

2. Og hann sende bod til Achabs Israels kongs í borgena.

3. Og let seigia hønum: so seiger BenHadad, þitt silfur og þitt gull er mitt, og þínar kvinnur, og þín bestu børn eru og so mín.

4. Israels kongur svarade, og sagde: minn Herra kongur, so sem þú hefir sagt, eg em þinn, og allt þad eg hefe.

5. Og sendemenn komu aptur, og søgdu: so seiger BenHadad, søkum þess, ad eg sende þer bod, og let seigia þer: þú skallt gefa mer þitt silfur og gull, þínar kvinnur og þín børn,

6. Þá vil eg senda mína sveina til þín á morgun um þennann sama tíma, ad þeir skulu rannsaka hús þitt, og þinna þenara, og þeir skulu taka í sínar hendur, þad sem þú hefir kært, og bera þad burt.

7. Þá kallade Israels kongur alla landsins øldunga, og sagde: hugleided og siáed! hvad vondt hann hefir í sinne. Hann sende bod til mín epter mínum kvinnum og børnum, og eptir mínu gulle og silfre, og eg hefe eigi neitad hønum þess.

8. Þá søgdu aller þeir enu elstu, og allt fólked hønum: þú skallt eigi hlyda, ne samþyckia.

9. Og hann sagde til sendeboda BenHadad: seiged mínum Herra kongenum, allt þad sem hann baud sínum þenara í fyrstu þad vil eg gera, enn þetta kann eg eigi ad gera. Sendemenn føru og søgdu hønum þad aptur.

10. Þá sende BenHadad til hans, og let so seigia hønum: Guðerner gere mer það og það, ef mølldenn af Samaria skal verða so mikel, að allt fólked, sem under mer er, kunne að hafa þar af einn hremming fullan.

11. Þá svarade Israels kongur, og sagde: seigeð, sá eð fœrer sig í harneskiu, hann skal eigi hrosa ser, so sem hinn sem hann hefir aflagt.

12 Enn sem BenHadad það heyrde (þar hann sat og drack með kongunum, í sínum landtiølldum) þá sagde hann til sinna þenara: búeð yður til, og þeir biugguſt imóte borgenne.

13. Og siá! þar geck einn spámaður til Achabs, Israels kongs, og sagde: so seiger Drottinn, þú hefir seð allann þennann ógrynneher? siá þú! á þessum deige vil eg gefa hann í þínar hendur, so þú vitir, að eg em Drottinn.

14. Achab sagde: fyrer hvern? hann svarade: so seiger Drottinn; fyrer sveina Lensmannanna. Hann sagde: hver skal stríðeð veita? hann svarade: þú.

15. Þá talde hann sveina Lensmannanna, og þeir voru að tølu tvø hundruð, tveir og þriátíu. Enn hann talde epter þá allt fólk, allra Israelsbarna, siø þusund menn.

16. Og þeir fóru út um midiann dag. Enn Benhadað drack, og varð druckenn í sínu tiallde, með tveimur og þriátíu kongum, hverer eð komner voru hønum til liðs.

17. Og Lensmannanna sveinar fóru fyrst út. BenHadað sende út, og þeir undervísuðu hønum og søgðu: þar fara menn út af Samaria.

18. Hann sagde: grípeð þá lifande, hvert sem þeir eru komner út, friðar eður stríðs vegna,

19. Enn sem Lensmanna sveinarner voru út komner, og herenn epter þeim.

20. Sló hver um sig þann sem hønum mœtte, so að þeir Syrlendskur flyðu undann, enn Israel rak flottann epter þeim. Og Ben Hadað kongur af Syria komst undann með hestum og riddørum.

21. Og Israels kongur fór út, og sló bœðe hesta og vagna, og fólked með, og veitte eitt miked slag þeim Syris.

22. Þá geck einn spámaður til Israels kongs, og sagde til hans; far þú burt og styrk þig, og merk, og siá til, hvað þú gerer, því kongurenn af Syria mun fara upp imóte þer þegar þetta ár er úte.

23. Því kongsins þenarar af Syria søgðu til hans: þeirra Guðer eru fiallanna Guðer, og því yfirunnu þeir oss. Enn mœttum ver beriaſt við þá á slettlendenu, hvað gillder? ver skylldum sigra þá.

24. Ger nu so, tak kongana burt, hvern af sínum stað, enn set þú høfdingia í þeirra stað.

25. Og niðurskicka þer einn her, so sem sá her var er þú mister, og hesta og vagna, eins sem þeir aðrer voru, og lát oss beriaſt á slettlende við þá, hvað skal gillda? ver vilium sigra þá. Hann hlydde þeirra raustu, og gerðe so.

26. Enn sem það ár var nú liðeð, skickaðe Ben Hadað Syrlendskum niður í orðu, og dró upp til Aphek, að beriaſt við Israel.

27. Israels børn bigguſt og so, tøku vister, og fluttu her sinn á móte þeim, og settu sínar herbúðer gagnvart þeim, þvilíkaſt sem tvær litlar geitsiár hiarðer vœre, enn Syri uppfylltu landeð.

28. Þá geck einn Guðs maður framm, og sagde til Israels kongs: so seiger Drottinn, sokum þess, að

þeir Syrlendsku hafa sagt, ad Drottinn se fialla Gud, enn eigi Gud dalanna, þvi hefi eg gefed þennann mikla fiølda í þína hønd, so þer vited ad eg em Drottinn.

29. Og þeir hverutveggiu settu nidur herbúdernar gegnt hverum ødrum í siø daga, á þeim siøunda deige sigu þeir samann í stríded, og Israels børn slóu hundrad þusund fotgøngulids, á einum deige, af þeim Syris.

30. Enn þeir sem epter lifdu, flúdu til Aphek, inn í stadenn. Og mûrenn fell á þá sem undann komust, og þeir voru siø og tuttugu þusund manns. Ben Hadad flyde og inn í stadinn, frá einu herberge og til annars.

31. Þá søgdu hans þenarar til hans: siá! ver høfum heyrt, ad Israels husß kongar eru miskunsamer kongar. Þvi látum oss leggia secke yferum vorar lendar, og bønd um vor høfud, og gøngum ut fyrer Israels kong, ske má, ad hann láte þína ønd lifa.

32. Og þeir gyrdtu secke um sínar lendar, og bønd um høfud ser, og komu til Israels kongs, og søgdu: BenHadad þinn þenare lætur seigia þer: eg bid, lát mína sál halldalife. Hann sagde: lifer hann enn nú, þá er hann minn broder.

33. Enn mennerner tóku strax þetta ord af hønum, og útløgdu þad ser til góda, og svørudu: já! þinn broder BenHadad. Hann sagde: komed og færed hann hingad: þá geck BenHadad út til hans, og hann let hann sitia í vagne.

34. Og hann sagde til hans: eg vil gefa þer nu aptur þær borger, sem minn fader tók frá þínum fødur, og ger þer stræte í Damasco, líka sem minn fader gerde í Samaria, so vil eg gera einn sáttmála vid þig, og láta þig fara, og hann gerde einn sáttmála vid hann, og let hann fara.

35. Þá mælte einn madur af spámanna børnum til síns náunga, fyrer Drottins ord: eg bid, slá þú mig. Enn hann villde eigi slá hann.

36. Þá sagde hann til hans: søkum þess ad þú villder eigi hlyda røddu Drottins: siá! þá skal eitt Leon slá þig, nær þú geingur frá mer. Og sem hann geck frá hønum, fann eitt Leon hann, og drap hann.

37. Og hann fann einn annann mann, og sagde til hans: eg bid, slá þú mig. Og madurenn sló hann, og vellte hønum sár.

38. Þá geck spámadurenn í burt, og kom á veigenn fyrer konginn, og torkende sitt andlit med øsku.

39. Enn sem kongurenn ferdadest þar framm um, þá kallade hann til kongsins, og sagde: þinn þenare var útfarenn midt í stríd, og siá! einn madur vek burt, og leidde einn mann til mín, og sagde: geym þú þennann mann, enn komest hann í burtu, þá skal þín sál vera í stadinn fyrer hans sál, ellegar skallt þú vega út eitt centener silfurs þar fyrer.

40. Og þá þin þenare hafde nockud ad gera, her og þar, þá var hann allur í burt. Israels kongur sagde til hans: þad er þinn dómur, þú hefir sialfur affagt hann.

41. Þá strauk hann strax øskuna af sínu andlite, og Israels kongur þeckte hann, ad hann var einn af spámønnonum.

42. Og hann sagde til hans: so seiger Drottinn til hans: søkum þess ad þú letst þann bølvada mann burt frá þer (sleppa) þá skal þín

sál vera í stadenn hans sálar, og
þitt folk í stadinn hans folks.
43 Epter þad ferdadest Israels
kongur þadann, med þungu skape
og reide, til sins hús, og kom til Samariam.

## 21. Capitule.

1. Þar epter vard sá atburdur,
ad Naboth í Jesreel átte einn víngard
í Jesreel, hiá Achabs kongs
høllu í Samaria.
2. Og Achab talade vid Naboth,
og sagde: gef mer þinn víngard, eg
vil gera mer einn kálgard þar af,
søkum þess, ad hann liggur so í
nánd vid mitt hús, enn eg vil gefa
þer einn betra víngard fyrer hann,
edá ef þer so líkar, þá vil eg gefa
þer silfur fyrer hann, so miked sem
hann er verdur.
3. Naboth svarade Achab: Drottinn
forde mer þvi, ad eg gefe þer
minna fedra arf.
4. Þá kom Achab heim, med
þungu gede og reide, søkum þess
ords sem Naboth í Jesreel talade
til hans, seigiande: eige vil eg gefa
þer minna fedra arf, og hann lagde
sig í sína reckiu, snuande sínu andlite
(til veggiar) og át eigi braud.
5. Þá kom Jesabel, hans kvinna,
inn til hans, og mællte vid
hann: hvad er þetta, ad þinn ande
er so þúngbúenn, ad þú tekur eige
fædslu til þín?
6. Hann sagde til hennar: eg
talade vid Naboth Jesreeliter, og
sagde: gef mer þinn víngard fyrer
peninga, edur gyrne þig þad, þá
vil eg gefa þer annann víngard
fyrer hann. Enn hann svarade: eige
vil eg gefa þer minn víngard.
7. Þá sagde Jesabel, hans kvinna,
til hans: hvad være Israel fyrer
kongsríke, ef þú gerder þad? rís
upp, og et braud, og vert med gódu
gede, eg vil útvega þer þennann
víngard Naboths af Jesreel.
8. Og hun skrifade bref under
Achabs nafne, og innsiglade þad
med hans signete, og sende þad til
øldunganna, og þeirra ædstu í
hans borg sem biuggu hiá Naboth.
9. Og skrifade so í brefenu: láted
úthrópa føstu, og seted Naboth
efst á millum folksins.
10. Seted sídann til tvo vonda
skálka imóte hønum, þeir ed vitne
og seige: þú hefir bølvad Gudi og
kongenum, og leided hann so út,
og gryted hann íhel.
11. Og øldungarner, og þeir
yppurstu hans borgar, sem biuggu
í hans borg, gerdu sem Jesabel
baud þeim, eins og hún hafde skrifad
í brefenu, þvi sem hún sende til
þeirra.
12. Og þeir letu úthrópa føstu,
og settu Naboth efst á millum folksins.
13 Sídann komu þar tveir vonder
skálkar, og stódu fyrer hønum,
og vitnudu mót Naboth fyrer fólkenu,
og søgdu: Naboth bølvade
Gudi og kongenum. Þá leiddu þeir
hann út af borgenne, og lømdu
hann íhel med grióte.
14. Og þeir gerdu bod Jesabel,
og letu seigia henne: Naboth er
gryttur, og daudur.
15. Enn sem Jesabel heyrde þad,
ad Naboth var íhel gryttur og
daudur, þá sagde hún til Achabs:
rís upp, og tak víngard Naboths í
Jesreel, þann sem hann villde ei
gefa þer fyrer peninga, þviad eigi
lifer Naboth, helldur er hann daudur.
16. Enn sem Achab heyrde þad,
ad Naboth var daudur, þá stód hann
upp, og geck ofann í víngard
Naboths Jesreeliters, ad eignast
hann.

17. Þá kom ord Drottins til Eliam Tesbiter og sagde:
18. Statt upp, og gack ofann á mót Achab Israels konge, sem er í Samaria, (siá! hann er nú í víngardi Naboths, þangad er hann ofann genginn, ad eignast hann).
19. Og tala þú vid hann, og seig: so seiger Drottinn! þú hefir ihelsleiged, og þar med þer annars gods til eignar teked. Og þú skallt tala vid hann og seigia: so seiger Drottinn: í þeim stad sem hunderner sleiktu Naboths blod þar skulu og hundar sleikia þitt blod,
20. Og Achab sagde til Elia: hefir þú funded mig, minn siandmadur? hann sagde: iá! eg hefe funded þig, søkum þess ad þú hefir sellt þig til þess, ad gera illt fyrer Drottne.
21. Siá! eg vil leida ólucku yfer þig, og burttaka þína epterkomendur, og eg vil uppræta af Achab allt karlkyn, og þad inneluckta og yfergefna í Israel:
22. Og eg vil gera þitt hús so sem hús Jeroboams, sonar Nebats, og sem hus Baesa, sonar Ahia, fyrer þá styggd sem þú hefir styggt mig med, og komed Israel til ad syndgast.
23. Og Drottinn talade og so um Jesabel, og sagde: hundar skulu eta Jesabel hiá Jesreels múrum.
24. Hver í stadnum deyr af Achab, þann skulu hundar uppeta, og hver sem deyr á akrenum þann skulu fuglar under himnenum uppeta.
25. Og þar var engenn madur, sem so var olldungis selldur til ad gera illt fyrer Drottne, so sem Achab, þviad hans kvinna Jesabel eggiade hann á þad.
26. Og hann gerde sig miøg svívirdelegann, so ad hann geck í aullum máta epter afgudum, eins og þeir Amoritar gerdu, hveria Drottinn utrak fyrer Israels børnum.
27. Enn sem Achab heyrde þesse ord, þá sundurreif hann sín klæde, og tók einn seck á sinn likama, og fastade, og svaf í seck, og geck hryggarlega framm.
28. Og ord Drottins kom til Eliam Thesbiter, og sagde:
29. Hefir þú ei sed hversu Achab audmyker sig fyrer mer? nú søkum þess ad hann audmyker sig so fyrer mer, þá vil eg eigi leida þad vonda inn um hans daga, enn á døgum hans sonar vil eg þessa ólucku koma láta yfer hans hús.

## 22. Capitule.

1. Nú lída so þriu ár, ad engenn ófridur var í millum þeirra Syrlendsku, og Israels.
2. Enn á þvi þridia áre fór Josaphat, Juda kongur, nidur til Israelis kongs.
3. Og Israelis kongur sagde til sinna þenara: vited þer eigi, ad Ramoth í Gilead er vor eign, enn ver sitium um kirrt, og tøkum hana eigi af kongsins hønd í Syrlande.
4. Og hann sagdi til Josaphat, villt þú fara med mer, ad strída imóte Ramoth í Gilead? Josaphat sagde til Israels kongs: eg vil vera líka sem þú og mitt folk er so sem þitt folk, og míner hestar líka sem þíner hestar.
5. Og Josaphat sagde til Israels kongs: spyr þó samt í dag epter Drottins orde.
6. Þá samansafnade Israels kongur spámønnonum, sem voru nær fiogur hundrud manna, og sagde til þeirra: skal eg fara ad heria á Ramoth (borg) í Gilead, eda ur skal eg láta so bued standa? þeir

sögdu: far upp, Drottinn skal gefa hana í kongsins hönd.
7. Og Josaphat sagde: er her engenn fleyri af Drottins spámönnum, so ver mættum spyria hann ad?
8. Israels kongur sagde til Josaphat: her er enn nú einn madur sem heiter Micheas, sonur Jemlæ, af hverum menn meiga spyria Drottinn ad, enn eg emhönum reidur, þviad hann spáer mer einskis góds, helldur alls ills. Josaphat sagde: eige skyllde kongurenn so tala.
9. Þá kallade kongurenn einn herbergis svein, og sagde: sæk þú sem skiótast Micheas, son Jemlæ.
10. Og Israelis kongur, og Josaphat, Juda kongur, sátu hver á sínum stóle, skrydder klædum, á einum fløt fyrer dyronum á Samariæ porte. Og aller spámenn spádu fyrer þeim.
11. Og Zedekia, sonur Cnaenas, hafde gert ser járnhorn, og sagde: so seiger Drottinn, med þessum skallt þú stánga þá Syros, þar til ad þú eydeleggur þá.
12. Og aller spámenn spádu hid sama, og sögdu: far þú upp til Ramoth í Gilead, og far luckulega, Drottinn mun gefa hana í kongsins hendur.
13. Enn sendemadurenn, sem út var gengenn ad kalla Micheam, sagde til hans: siá! spámannanna ræda er samhliódanlega gód fyrer kongenum, so lát nú þitt ord vera eins og þeirra ord, og tala þad sem godt er.
14. Micheas sagde: so sannarlega sem Drottinn lifer, eg vil tala þad sem Drottinn bydur mer.
15. Og sem hann kom til kongsins: þá sagde kongurinn til hans: Michea! skulum ver fara til bardaga í Ramoth í Gilead, eda skulum ver láta þad hiálída? hann sagde til hans: já! far upp þangad, og far luckulega, Drottinn skal gefa hana í kongsins hendur.
16. Kongurenn sagde enn einn sinni til hans: eg særi þig, ad þú ecke annad seiger mer, enn þad, sem satt er, í Drottins nafne.
17. Hann sagde: eg sá allann Israel sundur tvístrast um fiollenn, eins og sauder, þeir sem engann Herra hafa, snúe hver ydar heim aptur med fride.
18. Þá sagde Israelis kongur til Josaphat: hefi eg eigi sagt þer þad, ad þesse spáer mer einskis gods, helldur alls ills.
19. Hann sagde: heyr nú fyrer þvi ord Drottins; eg sá Drottinn sitia á sínu hásæte, og allur himinsins her stód hiá hönum, til hans hægre og vinstre handar.
20. Og Drottinn sagde: hver vill rádleggia þad Achab, ad hann fare upp, og falle í Ramoth í Gilead? og einn sagde þetta, enn annar þad.
21. Þá kom þar einn ande út, og geck framm fyrer Drottinn, og sagde: eg vil koma hönum til þess. Drottinn sagde til hans: hvar med?
22. Hann sagde: eg vil fara út, og verda einn lygeande í munne allra hans spámanna. Hann sagde: þú skallt koma hönum þar til, og þú skallt frammkvæma þad, gáck út, og ger so.
23. Siá nú, Drottinn hefir gefed einn lygeanda í munn allra þinna spámanna, og Drottinn hefir talad illt yfer þer.
24. Þá geck framm Zedechia, sonur Cnaenas, og sló Micheam á kinnvangann, og sagde: hvad? er ande Drottins þá vikenn frá mer, ad hann talade vid þig?
25. Micheas svarade: siá! þú

munt þad siá á þeim deige, þá þú gengur úr einu herberge til annars, so þú meiger fela þig.

26. Þá sagde Israels kongur: taked Micheam, og láted hann vera hiá Amon borgmeistara, og hiá Joas kongs syne.

27. Og seiged: so seiger kongurenn: seted þennann inn í mirkvastofu, og næred hann med sorgarbraude, og vatne, þar til eg kem aptur med fride.

28. Micheas svarade: ef þú kemur aptur med fride, þá hefir Drottinn eigi talad fyrer mig. Og hann sagde: heyred til allur lydur.

29. So fór nú Israels kongur, og Josaphat, Juda kongur, upp til Ramoth í Gilead.

30. Og Israels kongur sagde til Josaphat: breyt þu þínum klædabunade, og gák so á bardaga med þínum klædum sem þú hefir á þig teked. Og Israels kongur skipte búninge, og fór í bardagann.

31. Enn kongurenn af Syria baud hofdingiunum yfer sínum vognum, hverer ad tølu voru tveir og þriátíu, og hann sagde: berest ecke imóte neinum, smám ne storum, utann alleinasta á móte Israels konge.

32. Enn sem høfdingiarner fyrer vognønum sáu Josaphat, þá ætludu þeir, ad hann munde vera Israels kongur, og søktu ad hønum med strídenu. Þá kalladeJosaphat upp.

33. Enn sem þeir høfdingiar fyrer vøgnønum sáu, ad hann var eigi Israels kongur, þá sneru þeir ser tilbaka frá honum.

34. Enn einn madur dró sinn boga í óvissu, og skaut Israels kong millum Pantzarans, og sverdreimarennar. Þa sagde hann til síns vagnsveins, snú þinne hende, og fær mig úr hernum, þvi eg em sár ordenn.

35. Og stríded feck ofurefle þann sama dag, og kongurenn stód upp í vagnenum imót þeim Syris, og dó á þvi sama kvollde. Enn blóded flaut af sárenu midt í vagnenn.

36. Og þá sol geck til vidar, var láted útþrópa um herinn og seigia: fare hver í sína borg, og í sitt land.

37. So let kongurenn líf sitt, og var flúttur í Samariam, og þar var hann jardadur í Samaria.

38. Enn sem þeir þvodu vopn hans í einnre tiørn, hiá Samaria, þá sleiktu hundar hans blód, epter ordum Drottins, sem hann hafde talad.

39. Hvad sem meira er ad seigia um Achab, og allt þad hann gerde, og um hans hús sem hann byggde af fílabeinum, og um alla þá stade sem hann let uppbyggia, þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

40. So sofnade Achab med sínum fedrum, enn hans sonur Ahasia vard kongur í hans stad.

41. Og Josaphat sonur Asa, vard kongur yfer Juda, á þvi fiórda áre Achabs, Israels kongs.

42. Hann var hálf fertugur þá hann vard kongur, og ríkte fimm og tuttugu ár í Jerusalem. Hans moder het Asuba, dotter Silhi.

43. Og hann geck allann veg síns fødurs Asa, og veik eigi þar af, og hann gerde þad Drottni vel þocknadest.

44. Þó tók hann eigi burt þær hæder, og fólked offrade enn þá, og brennde reykelse á hædunum.

45. Og hann hafde frid vid Israels kong.

46. Hvad meira er ad seigia af Josaphat, og um hans magt, hvad hann hefir gert, og hvernenn hann

heriade: siá! þad er skrifad í Juda konga Chronicu.

47. Hann útrak hórkarla af landenu, sem ad epter voru ordner í tíd Asa, hans fødurs.

48. Þá var engenn kongur í Edom.

49. Og Josaphat let gera skip til siós, sem skylldu fara til Ophir, ad sækia gull. Enn þau fóru eigi þangad, því þau urdu í sundursleigenn í Eseon Geber.

50. Á þeim tíma sagde Ahasia, sonur Achabs, til Josaphat: lát mína þenara fara med þínum þenørum á skipønum. Enn Josaphat villde eigi.

51. Og Josaphat sofnade med sínum fedrum, og var jardadur med sínum fedrum, í borg Davids síns fødurs. Og Joram, hans sonur, vard kongur í hans stad.

Ender á þeirre fyrstu Konganna Bók.

# Aunnur Bok Konganna.

## 1. Capitule.

52. Ahasia, sonur Achabs, vard kongur yfer Israel í Samaria, á því seitianda áre Josaphats, Juda kongs, og hann ríkte yfer Israel tvø ár.

53. Og hann gerde það sem Drottne illa líkade, og frammfor á vegum fødur síns og modur, og geck epter vegum Jeroboams, sonar Nebat, sem kom Israel til ad syndga.

54. Og hann þiónade Baal, og tilbad hann, enn styggde Drottinn Israels Gud, eins líka sem hans fader gerde.

1. Epter andlát Achabs fellu Moabitar frá Israel.

2. Og Ahasia fell ofann um grindur í sínum sal til Samaria, og vard siukur. Og hann sende sende boda, og sagde til þeirra: fared, og spyred BaalSebub ad, sem er Gud í Ekron, hvert eg mun retta vid af þessum siúkdome?

3. Enn engell Drottins talade vid Elia Thesbiter: rís upp, og gáck á veigenn fyrer kongs sendemenn af Samaria, og seig til þeirra: er þar nú þá engenn Gud í Israel, ad þer fared og spyred BaalSebub Ekrons Gud?

4. Þar fyrer seiger Drottinn so: eigi skalltu koma úr þeirre reckiu sem þú liggur í, helldur skalltu vissulega deya. Og Elias geck burt.

5. Enn sem sendemenn komu til hans aptur, þá sagde hann til þeirra: því komed þer aptur?

6. Þeir svørudu hønum: þar kom einn madur upp imóte oss, og sagde til vor: snúed aptur til kongsins, sem ydur sende, og seiged hønum: so seiger Drottinn! er þar þá engenn Gud í Israel, ad þú sender til fretta til Baal Sebub Guds Ekrons? þess vegna skalltu eigi koma úr reckiu þar þú liggur, þvíad þú skallt dauda deya.

7. Hann sagde til þeirra: hverslu var sá madur í hátt sem ydur mætte, og sagde ydur þetta?

8. Enn þeir svørudu hønum: hann var í lodinne hud, og hafde eitt ólar bellte um sínar lendar.

Enn hann svarade: þad er Elias Thesbiter.

9. Og hann sende til hans einn høfudsmann yfer simmtíu, ásamt med þeim simmtíu. Enn sem þesse kóm upp til hans: siá! þá sat hann efst á fiallenu. Og hann sagde til hans: þu Guds madur! kongurenn seiger ad þu skuler koma ofann.

10. Elias svarade þeim sama høfudsmanne yfer simmtíu, og sagde til hans: se eg Guds madur, þá falle elldur af himnum og uppsvelge þig og þína simmtíu. Þá fell elldur af himnum og uppsvalg hann, og hans simmtíu.

11. Og enn sende hann aptur annann høfudsmann yfer simmtíu til hans, ásamt med hans simmtíu, hann svarade og sagde til hans. Þú Guds madur! so seiger kongurenn: kom sem skiotast ofann.

12. Elias svarade, og sagde: se eg Guds madur, þá falle elldur af himne, og uppsvelge þig, og þína simmtíu. Þá fell elldur Guds af himne, og uppsvalg hann og hans simmtíu.

13. Sídann sende hann aptur þann þridia høfudsmann yfer simmtíu, og med hønum simmtíu menn, og er hann kom upp til hans: þá beigde hann sín kne fyrer Elia, bad hann, og sagde til hans: þú Guds madur, lát mína sál, og sáler þinna þenara, þessara simmtíu, nockud gillda fyrer þer.

14. Siá! þar fell elldur af himne, og uppbrennde þá tvo fyrstu høfudsmenn yfer simmtíu, med þeirra simmtíu (mønnum). Lát nú mína sál gillda nockud fyrer þer.

15. Þá sagde Guds engell til Eliam: far ofaun med hønum, og óttast eigi fyrer hønum. Og hann reis upp og geck ofann med hønum til kongsins.

16. Og hann sagde til hans, so seiger Drottinn: fyrer sokum þess, ad þú sender bod, og leitst ad spyria BaalSebub, þann Gud í Ekron, so sem þar være engenn Gud í Israel, hvern þú meiger ad orde spyria, þvi skallt þu nú eigi rísa úr þeirre reckiu, sem þú liggur í, helldur skallt þú vissulega deya.

17. Og so dó hann epter Drottinns orde, sem Elias hafde talad. OgJoram vard kongur í hans stad, á ødru áreJorams sonarJosaphats Juda kongs, þvi hann átte engann son.

18. Hvad meira er ad seigia um Ahasia, og þad hann gerde: siá! þad er skrifad í Israels kongaChronicu.

## 2. Capitule.

1. Enn þegar Drottinn villde upptaka Eliam í vindenum til himens, þá gengu þeir Elias og Eliseus frá Gilgal.

2. Og Elias sagde til Eliseum: eg bid þig, vert her (epter) þviad Drottinn sende mig til BethEl. Eliseus sagde: so sannarlega sem Drottinn lifer, og þín sál, eg yfergef þig eigi. Og sem þeir komu ofann til BethEl,

3. Þá gengu spámannanna børn, sem voru í BethEl, út á móte Eliseo, og søgdu til hans: veitstu þad, ad Drottinn vill á þessum deige taka þinn Herra frá þínu høfde? hann sagde: eg veit þad vel, vered hlióder.

4. Og Elias sagde til hans: Elisee! eg bid, vertu her epter, þvi Drottinn hefir sendt mig til Jericho. Hann sagde: so sannarlega sem Drottinn lifer, og þín sál, þá skilst eg eigi vid þig. Enn sem þeir komu til Jericho,

5. Þá gengu spámannanna børn til Eliseum, sem voru í Jeri-

cho, og søgdu til hans: veitst þú þad, ad Drottinn vill á þessum deige taka þinn Herra frá þínu høfde? hann sagde: eg veit þad vel, hafed hliódt.

6. Og Elias sagde til hans: eg bid, vert þú epter her, þvi Drottinn hefir sendt mig til Jordan. Hann sagde: so sannarlega sem Drottinn lifer, og þin sál, eg fyrerlæt þig eigi, og þeir gengu tveir samt.

7. Og simmtíu menn af spámanna børnum gengu af stad og stódu gagnvart langt frá þeim, enn þeir stódu báder hiá Jordan.

8. Þá tók Elias møttul sinn, og vafde hann samann, og sló í vatned, enn þad skipte ser á bádar sídur, so þeir gengu báder þurrer þar yfer um.

9. Enn sem þeir komu yfer um, þá sagde Elias til Eliseum, bid þess sem eg gere þer, ádur enn eg verd numenn frá þer. Eliseus sagde: eg bid ad þinn ande meige tvøfalldast hiá mer.

10. Hann sagde: þess hefir þú beded sem er torvellt. Enn allt ad einu, ef þú ser mig, þá eg verd nú uppnumenn frá þer, þá mun þad vera so, enn siáer þú mig eigi, þá sker þad eigi.

11. Og þá þeir gengu tilsamans, og hann var ad tala: siá! þá kom þar einn elldlegur vagn med elldlegum hestum, og adskilde þá báda hvern frá ødrum, og Elias fór so í vindeinum til himens.

12. Eliseus sá þad, og kallade, minn fader! minn fader! Israels vagn, og hans reidmenn; og hann sá hann eigi meir. Og hann tók sín klæde, og hreif þau sundur í tvo hlute.

13. Og hann tók upp møttul Elie, sem fell frá hønum, hvarf aptur, og kom til Jordanar backa.

14. Og tók þann sama møttul Elie sem fell frá hønum, og sló á vatned, og sagde: hvar er nú Drottinn Elie Gud? og er hann sló í vatned, þá skipte þad ser á bádar sídur, og Eliseus geck yferum.

15. Nú sem spámanna børn þad sáu, sem voru í Jericho, gegnt hønum, þá søgdu þeir: ande Elie hvíler yfer Eliseo. Og þeir gengu imót hønum, og tilbádu á jørdunne.

16. Og þeir søgdu til hans: siá! her eru simmtíu hraustra manna á medal þinna þenara, lát þá fara ad leita epter þínum Herra, ske má, ad Drottins ande hafe teked hann, og sleygt hønum nockurs stadar á eitthvert fiall, edur nockurs stadar í einn dal. Hann sagde: láted þá hverge fara.

17. Enn þeir neyddu hann, til þess hann blygdadest vid, og sagde: láted þá fara af stad. Og þeir sendu simmtíu menn af stad, og þeir leitudu epter hønum í þriá daga, og fundu hann eigi.

18. Og þeir komu aptur til hans. Og hann var í Jericho, og sagde til þeirra: sagde eg eigi, ydur ad þer skylldud hverge af stad fara?

19. Og borgarmennerner søgdu til Eliseum: siá! þesse stadur er godur íbúdar, so sem minn Herra ser, enn her er vondt vatn, og jord miøg ófriosøm.

20. Hann sagde: færed mer hingad eina nya skál, og láted sallt í hana. Og þeir færdu hønum skálena.

21. Sídann geck hann út til uppsprettunnar, og varpade salltenu í hana, og sagde: so seiger Drottinn: þetta vatn gerda eg heilnæmt, þar skal engenn daude, eda nockurs háttar ófriosleikur af koma hedann í frá.

22. So vard vatned heilnæmt,

allt til þessa dags, epter þeim ordum semEliseus hafde sagt.

23. Og hann geck upp til Beth El. Og sem hann var komenn a veigenn, þá gengu þar smásveinar út af stadnum, og hæddu hann, og sögdu til hans: stíg her upp skalle! stíg her upp skalle!

24. Og hann snere ser vid, og þá hann sá þá, þá bølvade hann þeim í nafne Drottins. Þá komu þar tvø biarndyr úr skogenum, og slitu tvø og fiorutíu af þessum smásveinum.

25. Og hann geck þadann uppá fialled Carmel, og snere þadann til Samaria.

## 3. Capitule.

1. Joram, sonur Achabs, vard kongur yfer Israel í Samaria, á þvi átianda ári Josaphats kongs Juda, og ríkte tolf ár.

2. Og hann gerde þad sem Drottni illa líkade, þó eigi sem hans fader, og hans moder. Þvi hann burt tók Baals stólpa, sem hans fader let gera.

3. Enn þó heck hann vid synder Jeroboams, sonar Nebat, sem Israel kom til ad syndgast, og let þar eigi af.

4. Og Mesa Moabita kongur, hafde fiølda sauda, hann greiddi í skatt Israels konge hundrad þusund lambareyfe, og reyfe af hundrad þusund hrútum.

5. Enn sem Achab var daudur þá fell kongur Moabitarum frá Israels konge.

6. Sídann fór Joram kongur út af Samaria, á þeim sama tíma, og talde allann Israel.

7. Og hann sende burt til Josaphats, kongsins Juda, og let seigia hønum. Kongur þeirra Moabitarum er fallenn frá mer, kom med mer, ad beriast vid þá Moabita. Hann svarade: eg vil koma þar upp, eg em sem þú, og mitt folk so sem þitt folk, og míner hestar so sem þiner hestar.

8. Og hann sagde: um hvern veg vilium vid fara upp þangad? hann sagde: á þann veg sem liggur um Edoms eydemørk.

9. So ferdudust þeir Israels kongur, og kongur Juda, og kongurenn af Edom. Og sem þeir høfdu ferdast sio daga reisu, þá hafde herenn, og þad kvikfe sem var med þeim, ecke vatn.

10. Þá sagde Israels kongur, o vei! þviad Drottinn hefir kallad þessa þriá konga, ad hann gefe þá í hendur Moabitarum.

11. Josaphat svarade: er her engenn spámadur Drottins, so ver meigum spyria Drottinn ad rádum fyrer hann? þá svarade einn af Israels kongs þenørum, og sagdei her er Eliseus, sonur Saphat, sem gaf vatn á Elias hendur.

12. Josaphat sagde: hiá hønum er ord Drottins. So fóru þeir Israels kongur, og Josaphat, og Edoms kongur, ofann til hans.

13. Þá sagde Eliseus til Israels kongs: hvad hefir þú med mig? far burt til spámanna fødur þins, og módur þinnar. Israels kongur svarade hønum: nei, þviad Drottinn hefir kallad þessa þriá konga, ad hann gefe þá í hendur þeirra Moabitarum:

14. Eliseus sagde: so sannarlega sem Drottinn Zebaoth lifer, fyrer hverum eg stend, ef eg sæe eigi til Josaphat Juda kongs, skyllde eg eigi siá til þín ne þig akta.

15. So sæked mer nú einn hliódfæra mann. Nú sem hliódfæra madurenn tók ad leika á strein-

gena, þá kom Drottins hønd yfer hann.

16. Og hann sagde: so seiger Drotinn: gered grafer her og hvar hiá þessum læk.

17. Þvi so seiger Drottinn: þer skulud hverke siá vind ne regn, þó skal þesse lækur verda fullur af vat ne, so ad þer, ydrer þienarar, og ydart kvikfe skal drecka þar af.

18. Þar med er þad lítels verdt fyrer Drottne, hann skal og gefa Moabita í ydar hendur.

19. So ad þer munud nidur slá alla fasta stade, og alla útvalda stade, þer skulud og upphøggva øll góð tre, og þer skulud byrgia alla vatnsbrunna, og þer munud fordiarfa alla ágæta akra med steinum.

20. Arla morguns, um þann tíma sem menn pløgudu ad offra mat offre: siá! þá kom þar vatn á þeim veige sem liggur frá Edom, og uppfyllte landed med vatn.

21. Enn sem aller Moabitar spyria þetta, ad kongarner voru farner upp ad stríða imóte þeim, þá køllu du þeir alla þá tilsamans sem voru nógu gamler til stríds og þadann af, og fóru til landamerkia,

22. Og þá þeir biugguſt snemma morguns, og solenn geck uppá vatned, þá sáu Moabitar, ad vatned var raudt, á móte þeim, sem blód.

23. Þá søgdu þeir: þad er blód, kongarner hafa fordiarfad sig med sverde, og einn drepið annann nidur, æ Moab! far nú epter herfánge.

24. Enn sem þeir komu til Israels herbúda þá stód Israel upp, og sló þá Moabita, og þeir flydu fyrer þeim. Enn þeir komu inn og slóu Moab.

25. Þeir nidurbrutu borgernar, og hver kastade sínum steine á alla góða akra og fylltu þá, og þeir tilbyrgdu allar vatnsuppsprettur, og hiuggú nidur øll góð tre, so leinge, ad þar var eigi epter utann steinarner af tigul múrnum. Og þeir gáfu sig til hans med sløngum, og slóu hann.

26. Enn sem Moabita kongur sá, ad strídeð var hønum of øflugt, þá tók hann siø hundrud manna til síns, sem sverdum rucktu, og villde briotast gegnum til kongssens af Edom. Enn þeir gátu þad eigi.

27. Sídann tók hann sinn frumgetinn son, hver ed verda átte kongur í hans stad, og offrade hønum uppá múrnum til brenneoffurs. Þá vard Israel miøg reidur, so þeir fóru frá hønum, og sneru aptur í sitt land.

## 4. Capitule.

1. Og ein af eigenkonum spámannanna barna kallade til Eliseum, og sagde: þinn þenare, minn bonde, er andadur. So veist þú, ad hann þinn þenare óttadest Drottinn, nú kom þar einn madur, sem átte skulld hiá hønum, og vill taka bæde mín børn ser til þræla.

2. Eliseus svarade henne: hvad skal eg gera þer? seig mer, hvad hefir þu í húsenu, hún svarade: þín þenustu kvinna hefir ecke í sínu húse, nema eina vidsmiørs krus.

3. Hann sagde: far þú af stad, og bid þar úte allar þínar nábua kvinnur, um tóm ker, og óska eigi allfárra.

4. Og gáck inn, og loka dyrønum epter þer, med þínum sonum, og hell í øll kerenn, og þá þau eru full, þá fá þau frá þer.

5. Hún fór af stad, og lokade dyrønum ad ser, med sínum sonum, þeir færdu kerenn til hennar, enn hún hellte í þau.

6. Enn þá kerenn voru full, þá sagde hún til síns sonar, fá mer

þingad enn eitt ker. Hann svarade henne: her eru eigi fleyre ker til. Þá stód vidsmiøred.

7. Og hún geck út, og kunngerde þetta Guds manne. Hann svarade: far nú, og sel vidsmiør, og bitala þeim sem þú ert skylldug, sídann skallt þú og þíner syner hafa ydur til vidurlífis þad sem meira er.

8. Og þad skede í þann tíma, ad Eliseus geck til Sunem, þar var ein rík kvinna, hún hellt hann, so hann tók fæðu hiá henne. Og sem hann fór opt þar igegnum, þá tók hann gysting hiá henne, og þá hennar fædu.

9. Og hún sagde til síns bonda: siá! eg merke ad þesse Guds madur er heilagur, sem jafnann gengur her igegnum.

10. Vid vilum gera hønum eitt líted herberge her uppyfer, og setia þangad handa hønum eina sæng, bord, stól, og kertastiku, so ad nær hann kemur til vor þá meige hann vera þar.

11. Og þad skede so einn tíma, ad hann kom þar inn, og lagde sig upp í herberged, og svaf þar inne.

12. Þá sagde hann til síns sveins Gizi: kalla þú á þessa Sunamitisku kvinnu. Og sem hann kallade á hana, þá kom hún framm fyrer hann.

13. Hann sagde til hans: seig til hennar: siá! þú hefir veitt oss allann þennann góðvilia, hvad skal eg gera þer? hefir þú nockurt erende vid kongenn, eda vid hershøfdingiann. Hún svarade: eg by á midlum míns folk.

14. Hann sagde: hvad skal þá gera til vid hana? Giezi sagde: ah! hún hefir engann son, enn hennar madur er gamall.

15. Hann sagde: kalla þú á hana. Og sem hann kallade hana, þá geck hún framm í dyrnar.

16. Og hann sagde: á þessum sama tíma, ad árenu lidnu, þá skalltu taka einn son í fáng. Hún svarade: o nei, minn Herra! þú Guds madur, skrøka eigi ad þinne þiónustu kvinnu.

17. Og kvinnann vard þungud, og fædde einn son, á þeim sama tíma um áred, sem Eliseus hafde sagt henne.

18. Nú sem barned var vaxed, þá bar so til, ad þad geck út til síns fødurs, til kornskurdar mannanna.

19. Og sagde til síns fødurs, o mitt høfud! mitt høfud! hann sagde til síns þenara: ber hann til sinnar modur.

20. Og hann tók hann, og færde hann inn til sinnar modur. Og hún lagde hann í sitt skaut, allt til middags, þá andadest hann.

21. Hún geck upp, og lagde hann í sæng Guds manns, let aptur dyrnar, og geck út.

22. Og hún kallade á sinn bónda, og sagde: send fyrer mig einn af þenørunum, og eina øsnu, eg vil fara til Guds manns, og koma aptur.

23. Hann sagde: þvi villt þú til hans: nú er hverke í dag nyr máni ne sabbathsdagur? hún sagde: vert þú til frids.

24. Og hún let sødla øsnu, og sagde til þenarans: keir fast, og tef mig eigi á ferdenne, so sem eg seige þer.

25. So fór hún af stad, og kom til Guds manns á fialled Carmel. Og sem Guds madur sá hana fyrer ser, þá sagde hann til síns þenara Giezi: siá! sú Sunamitiska qvinna er þar.

26 Skunda nú út á móte henne, og spyr hana ad, hvert þad gengur vel henne, hennar manne, og hennar syne? hún sagde: vel.

27. Enn sem hún kom til Guds

manns á fialled, þá hellt hún um hans fætur. Giezi geck ad, og villde hrinda henne þar frá. Enn Guds madur sagde: lát hana kyrra, þvi hennar sál er harmþrúngenn, enn Drottinn hefir leynt mig þvi, og láted mig eigi vita þad.

28. Hún sagde: nær bad eg um einn son af mínum Herra? sagde eg eigi, ad þú skylldꝛ eigi kallsa mig.

29. Og hann sagde til Giezi: gyrd þínar lendar, og tak minn staf í þína hønd, far af stad (ef þer mætꝛ er nockur, þá heilsa hønum eigi, enn ef nockur heilsar þer, þá svara þú hønum engu) og legg minn staf yfer ásionu sveinsins.

30. Moder Pilltsins sagde: so sannarlega sem Drottinn lifer, og þín sál, eg fyrerlæt þig eigi. Þá bió hann sig, og geck epter henne.

31. Enn Giezi geck af stad undann þeim, og lagde stafenn yfer sveinsins ásionu, enn þar var engenn rødd ne tilsinning, so geck hann aptur og mætte hønum, og undervísade hønum, og sagde: eigi vaknade sveinenn.

32. Enn sem Eliseus kom í húsed: siá! þá lá sveinenn daudur á hans sæng.

33. Og hann geck inn þangad, og lokade dyrnar ad þeim bádum, og bad til Drottins.

34. Og hann ste upp og lagde sig yfer barned, og lagde sinn munn yfer barnsins munn, og sín augu yfer hans augu, og sínar hendur yfer hans hendur, og breidde sig so ad barnsins líkame vard varmur.

35. Og hann stód upp aptur, og geck í húsed einusinne, hingad og þangad, og ste upp, og breidde sig yfer hann. Þá hnerrade sveinnenn sió sinnum, þvi næst upp lauk sveinnenn sínum augum.

36. Og hann kallade á Giezi, og sagde: kalla á þá Sunamitiskú qvinna. Og sem hann kallade hana, geck hún inn til hans. Hann sagde: tak þar þinn son.

37. Þá kom hún og fell til fóta hønum og tilbad á jørdinne, og tók sinn son, og geck út.

38. Enn sem Eliseus kom aptur til Gilgal þá var hallære í landenu, og spámannanna børn sátu fyrer hønum. Og hann sagde til síns þenarar: lát upp einn stórann ketel, og kocka einn sætann rett, handa børnum spámannanna.

39. Þá geck einn út á akurenn ad safna samann jurtum, og fann villevínsviſtu, og tínde þar af sinn kyrtel fullann; og sem hann kom heim, þá skar hann þad í ketelenn til sæts rettar, þvi þeir vissu ei hvad þad var.

40. Og sem þad var uppláted fyrer mennena ad eta, og þeir átu af rettenum, þá kølludu þeir upp, og søgdu: o Guds madur! daude er í katlenum! þvi þeir gátu eigi eted þar af.

41. Þá sagde hann, færed hingad miøl. Og hann kastade þvi í ketelinn, og sagde: skamted þad nú upp fyrer fólked, so þad meige eta. Þá var ecke illt í katlenum.

42. Og þar kom einn madur af Baal Salisa og færde Guds manne tuttugu byggbraud af fyrsta ávegste, í sínu klæde, og nytt korn. Enn hann sagde: gef þetta fólkenu ad eta.

43. Hans þenare svarade: hvad skal eg gefa hundrad mønnum þar af? hann sagde: gef þú fólkenu so þad neyti. Þviad so seiger Drottinn: menn munu eta, og mun afganga.

44. Hann lagde þad fyrer þá, og þeir átu, og þó geck þar af, epter orde Drottins.

## 5. Capitule.

1. Naaman, hersøfdinge kongsins i Syria, hann var merkelegur madur fyrer sínum Herra, og hatt afhallđenn. Þvi Drottinn gaf farsæld i Syria fyrer hann, og hann var eitt mikelmenne, og líkþrár.

2. Og stridsfolk af Syria hafde gert uthlaup, og hafde burt flútt eina litla stulku af Israels lande, hver ad þiónade Naamans kvinnu.

3. Hun talar so fyrer sinne frú: Gud gæfe ad være minn Herra hiá þeim spámanne í Samaria, þá munde hann frelsa hann frá sinne spitelsku.

4. Þá geck hann inn fyrer sinn Herra, og sagde hønum þar til, og sagde. Ein mær af Israels lande hefir so og so talad.

5. Kongurenn af Syria sagde: so far þú þangad, eg vil skrifa bref til Israels kongs. Og hann ferdadest af stad, og tók med ser tíu centener silfurs, og sex þusund gyllene, og tíu hátídadags klæde.

6. Og færde brefed Israels konge. Þad hliodade so. Þá þetta bref kemur til þín: siá! þá skallt þu vita, ad eg hefe seudt minn þenara Naaman til þín, so ad þú gerer hann heilann af sinne líkþra.

7. Enn sem Israels kongur hafde lesed brefed, þá reif hann sín klæde, og sagde: em eg þá Gud, so ad eg meige deyda og lífga, ad hann sender til mín, ad eg skule gera þann mann heilann af sinne líkþrá? hugleided og skoded, hverra tilefna hann leitar imóte mer.

8. Þegar Eliseus Guds madur heyrde þetta, ad Israels kongur hafde sundurrifed sín klæde, þá sende hann til hans, og let seigia hønum: þvi reifstu í sundur þín klæde, lát hann koma til mín, so hann meige vita, ad her er einn spámadur í Israel.

9. So kom Naaman med hestum og vøgnum, og stód vid fyrer Elisei husdyrum.

10. Þá sende Eliseus bod til hans, og let seigia hønum: far þú og þvo þig siø sinnum í Jordan, so skal þitt holld verda samt aptur, og hreinsast.

11. Þá vard Naaman reidur, fór burt, og sagde: eg hugde ad hann munde koma út til mín, og ganga framm ad, og ákalla nafn Drottins síns Guds, og hræra med sinne hende vid þann stad, og taka so spitelskuna í burtu.

12. Eru eigi þau vøtn Amana og Pharphar, í Damasco, betre enn øll vøtn í Israel, so eg hefde mátt þvo mig í þeim, og verda hreinn? og hann snere ser, og fór burt í reide.

13. Þá gengu ad hønum hans sveinar, tøludu þid hann, og søgdu: kære fader! þó ad spámadurenn hefde boded þer eitthvad torvellt, skyllder þú eigi gera þad? hvad miklu framar, þad hann sagde til þín: þvo þer, og muntu verda hreinn.

14. Þá steig hann af og dífde ser siøsinnum í Jordan, so sem Guds madur hafde sagt, og hans holld vard samt, líka sem eitt barns holld, og hann vard hreinn.

15. Og hann hvarf aptur til Guds manns, med øllum sínum her. Og sem hann kom inn, þá geck hann framm fyrer hann, og sagde: siá! eg veit ad þar er engenn Gud í øllum løndum, utann í Israel. So tak nú þessa blessann af þínum þenara.

16. Hann svarade: so sannlega sem Drottinn lifer, fyrer hverum eg stend, eg tek þad eigi. Og hann

neydde hann til ad taka þad. Enn hann villde eigi.

17. Þá sagde Naaman: má eigi þá þínum þenara gefast ein byrde af þessare jørdu, so miked sem tveir múlar bera? Þviad þinn þenare vill eigi hedan í frá færa fórner eda brenneoffur annarlegum Gudum, helldur Drottne.

18. Ad Drottinn vile vera þínum þenara þar úti nádugur, þegar eg tilbid í Remmons húse, þá minn Herra gengur inn í Remmons hús, ad bidiast þar fyrer, og hann stydur sig vid mína hønd.

19. Hann svarade hønum: far þú í fride. Og sem hann var farenn frá hønum einn hálfann fiordung af mílu uppá landed,

20. Þeinkte Giezi þenare Elisei Guds manns: siá! minn Herra vægde þessum Syrlendska Naamann, so hann tók vid engu af hønum, þad hann fært hafde, so sannarlega sem Drottinn lifer, eg vil hlaupa epter hønum, og taka vid nockrú af hønum.

21. Sídann rann Giezi epter Naamann. Enn sem Naaman sá, ad hann hliop epter ser, þá steig hann af kerrunne imóte hønum, og mællte: gengur þad rettelega til?

22. Hann svarade: ja! minn Herra sende mig til þín, og let seigia þer: siá! nu strax komu tveir sveinar af spámanns børnum til mín, frá Ephraims fialle, gef þeim eitt centener silfurs, og tvenn helgra daga klæde.

23. Naaman svarade: eg bid, tak tvø centener. Og hann neydde hann til, og batt tvø centener silfurs í tveimur sickium, og tvenn hátída klæde, og skipade til tvo af sínum sveinum, þeir báru þad fyrer hønum.

24. Og sem hann kom til Ophel, þá tók hann þad af þeirra høndum, og lagde afsídes í húsed, enn let mennena fara.

25. Enn sem þeir voru í burtu, þá geck hann fyrer-sinn Herra.

26. Og Eliseus sagde til hans: hvadann komstu Giezi? hann sagde: þinn þenare hefir hverke genged hingad ne þangad. Hann svarade: munde mitt hiarta eigi á ferd, þá madurenn snere aptur úr sínum vagne imóte þer? var þad þá tíme, ad taka silfur og klædnad, vidsmiørs garda, og víngarda, saude, naut, þræla og ambátter.

27. Enn Naamans líkþrá skal festast vid þig, og þitt afkvæme æfinnlega. Og hann geck út frá hønum, spitelskur líka sem sniár.

## 6. Capitule.

1. Spámannanna børn søgdu til Eliseum: siá! þesse stadur, þar ver búum hiá þer, er oss ofþraungur.

2. Lát oss fara til Jordanar, og taka ser hverr þar tre, so ver mættum byggia oss þar einn stad þar ver búum í, enn hann svarade: fared þangad.

3. Og einn sagde: bid eg ad þú viler fara med þínum þenørum. Hann sagde: eg vil fara med.

4. Og hann fór med þeim. Enn sem þeir komu til Jordanar, upphiuggu þeir tre.

5. Og þá einn fellde eitt tre, þá fell járned í vatned. Enn hann kallade upp, og sagde: auvi! minn Herra! þar med var þad led.

6. Og Guds madur svarade: hvar fell þad nidur? og þá hann synde hønum stadenn, hió hann eitt tre af, og snarade þvi þangad, þá flaut járned.

7. Og hann sagde: tak þad upp, og hann rette út sína hønd, og tók þad.

8. Og kongurenn af Syrlande stridde á Israel, og rádgadest vid sína þenara, og sagde: ver vilum setia vorar herbúder þar og þar.

9. Enn Guds madur sende til Israels kongs, og let seigia hønum: vara þig, og far eigi til þess stadar, þviad Syri hvílast þar.

10. Þá sende Israels kongur burt til þess stadar sem Guds madur sagde hønum: forvarade hann, og hellt þar vaktara, og gerde þad eigi eitt sinn edur tvær reisur ad eins.

11. Kongsins hiarta af Syria sturladest þar yfer, og hann kallade samann sína þenara, og sagde til þeirra: viled þer eigi seigia mer, hver af voru lide mun slúenn til Israelis kongs?

12. Þá sagde einn af hans þenørum: eigi so minn Herra kongur, helldur Eliseus sá spámadur í Israel, hann seiger Israels konge allt þad sem þú talar í þínu svefnherberge.

13. Hann sagde: so fared þangad og skáed hvar hann er, so eg meige senda þangad, og láta sækia hann. Og þeir undervísudu hønum og søgdu: siá! hann er í Dothan.

14. Þá sende hann hesta og vagna, og mikenn styrk. Og sem þeir komu þar um nótt, umkringdu þeir stadenn.

15. Enn sem þenare Guds manns stód upp árla, ad hann bygge sig til ad ferdast út, og siá! þá lá þar einn her um borgena, med hestum og vøgnum. Þá sagde hans sveinn til hans: auvi! minn Herra! hvad skulum vid nú til ad gera?

16. Hann sagde: óttast eigi, þviad þeir eru fleyre sem eru med oss, enn þeir sem eru med þeim.

17. Og Eliseus badst fyrer, og sagde: Drottinn! luk upp hans augum, ad hann meige siá. Og Drottenn upplauk sveinsins augum, ad hann sá, og slá, ad fialled var fullt umbergis Eliseum af elldlegum hestum og vøgnum.

18. Og sem þeir komu nidur til hans bad Eliseus og sagde: Drottinn! slá þetta folk med blindleika. Og Drottinn sló þá med blindu, epter Elisei ordum.

19. Og Eliseus sagde til þeirra: eigi er þetta vegurenn, ne sú borgenn. Fylged mer epter, eg vil vísa ydur til þess manns, sem þer leited epter. Og hann leidde þá til Samariam.

20. Enn sem þeir voru komner í Samariam sagde Eliseus: Drottinn! luk þú upp þessara augum, so ad þeir meige siá. Og Drottenn upplauk þeirra augum, so þeir sáu, og siá! þeir voru þá í midre Samaria.

21. Enn Israels kongur, sem hann sá þá sagde hann til Eliseum: minn fader! skal eg slá þá?

22. Hann svarade: eigi skalltu slá þá, enn þá sem þú fangar med sverde þínu og boga þá somu mátt þú slá. Set braud og vatn fyrer þá, so þeir meige eta og drecka, og lát þá fara til síns Herra.

23. Þá var búenn til mikel máltíd. Og sem þeir høfdu eted og drucked þá let hann þá fara, ad þeir fóru til síns Herra. Og alldrei sídann kom sá stridsher Syrlendskra í Israels land.

24. Og epter þetta skede so, ad BenHadad, kongur af Syria, dró samann allann sinn her, og fór upp, og settest um Samariam.

25. Og þar var miked hallære í Samaria. Og þeir sátu um stadinn so lenge, ad eitt asnahøfud gallt áttatíu silfurpeninga, og

einn fiordungur af kab med dúfna drite, fimm silfurpeninga.

26. Enn sem Israels kongur geck ad múrnum, kallade ein kvinna til hans, og sagde: hiálpa þú mer, minn Herra kongur!

27. Hann sagde: hiálpar eigi Drottinn þer, hvar med skal eg hiálpa þer? af kornhlødunne, eda af vínþrúgunne?

28. Og kongurenn sagde til hennar: hvad skadar þig? hún sagde: þesse kvinna sagde til mín: gef þinn son framm, ad vid etum hann í dag, enn á morgun vilum vid eta minn son.

29. So høfum vid soded og eted minn son. Og eg sagde til hennar á ødrum deige: tak nú þinn son, og lát hann hingad, so ad vid etum hann, enn hún hefir faled sinn son.

30. Enn sem kongurenn heyrde kvinnunnar ord reif hann sín klæde, þá hann geck til múrsins. Þá sá allt fólked, ad hann var klæddur seck innst á líkamanum.

31. Og hann sagde: Gud gere mer þad og þad, ef høfud Eliseí, sonar Saphat, skal standa í dag á hønum.

32. Og Eliseus sat í sínu húse, og ølldungarner sátu hiá hønum. Og kongurenn sende einn mann undann ser. Enn ádur enn sendemadurenn kom til hans, þá sagde hann til ølldunganna, hafed þer sed hvernenn þesse manndrápara sonur hefir sendt hingad, ad slíta af mer mitt høfud? siáed til, þegar sendemadurenn kemur, þá láted aptur dyrnar, og hrinded hønum burt med hurdenne, siá! þytur fóta hans Herra kemur epter hønum.

33. Enn sem hann var so ad tala vid þá, siá! þá kom sendemadurenn nidur til hans, og sagde: siá! slíkt illt kemur af Drottne, hvad skal eg meir vona af Drottne.

## 7. Capitule.

1. Enn Eliseus sagde: heyred ord Drottins, so seiger Drottinn, á morgun, um þennann tíma, skal einn mæler similiu miøls kosta einn sekel, og tveir mæler byggs einn sekel, í borgarhlide Samaria.

2. Þá svarade einn riddare, vid hvers hønd ad kongurenn studde sig, Guds manne, og sagde: og þó ad Drottinn gerde glugga á himnenn, hvernenn má þetta verda? hann sagde: siá þar, þú skallt þad siá med þínum augum, og eigi eta þar af.

3. Og þar voru fiorer líkþráer menn úte fyrer dyrønum fyrer borgarhlidenu, og sá eine sagde til hins annars, þvi vilum ver her til heliar bída?

4. Þó ver þeinktum ad koma í borgena, þá er þar hallære í stadnum, so ver munum deya þar, ef bídum ver her, þá munum ver og so deya. So látum oss nú ganga af stad, og falla til hers þeirra Syrlendsku; ef þeir láta oss lifa, þá lifum ver. Enn sláe þeir oss í hel, þá erum ver dauder.

5. Þeir stódu upp árdeigis, ad þeir fære til hers þeirra Syrlendsku. Og sem þeir komu fremst ad þeim stad sem herbúdernar voru: siá! þá var þar engenn madur.

6. Því Drottinn hafde láted þá Syros heyra hesta gny, vagna, og stóra herlids magt, so ad hver sagde til annars: siáed! Israels kongur hefir leigt (ser lid) imóte oss, Hethita konga, og kongana af Egyptalande, ad þeir kome yfer oss.

7. Og þeir tóku sig upp og flúdu í bytíd, og letu sínar tialldbuder, hesta, og asna, epter í herbudøn=

um, so sem þad stód, og flydu med sínu lífe þar frá.

8. Nú sem þeir líkþráu menn kómu í þann stad sem herbúdernar voru, þá gengu þeir í eina tialldbúdena, átu og drúcku, og tóku þar silfur, gull og klædnad, gengu í burt, og geymdu þad. Og komu aptur, og gengu í adra tialldbúd, og tóku þar út, og gengu burt, og geymdu þad.

9. Enn sá eine sagde til þess annars: látum oss eigi so gera, þesse dagur er dagur góds bodskapar, ef ver þeigum þar yfer, og bídum allt til biarts dags á morgun, þá finnst vor misgerningur. Fyrer þvi førum nú af stad, ad ver komum og kunngerum þetta í kongsins huse.

10. Og sem þeir komu, hrópudu þeir hiá porte borgarennar, ávísudu þeim, og søgdu: ver komum í herbúder þeirra Syra, og siá! þar var engenn madur, og einsskis manns raust, enn hestar og asnar voru bundner, og tialldbúdernar so sem þær stódu.

11. Þá var kallad á portvaktarana, ad þeir skylldu seigia frá þessu þar inne í kongsins huse.

12. Og kongurenn stód upp um nóttena, og sagde til sinna þenara, láted ydur seigia hvernenn þeir Syri høndla vid oss. Þeir vita, ad ver hungur lídum, og eru útgengner af herbúdønum, og leynast í mørkum úte, og hugsa, þá þeir ganga út af stadnum þá vilum ver høndla þá lifande, og komast í borgena.

13. Þá svarade einn af hans þenørum, og sagde: take menn þá fimm hesta sem afhleypis eru þar inne, hverer ad epter eru (siá, þeir eru epter ordner þar inne af øllum þeim siølda í Israel, hverer aller eru í burt) látum oss senda þá og umskoda.

14. Sídann tóku þeir tvo vagna med hestum, og kongurenn sende þá til Syrlendskra herbúda, og sagde: fared og skoded.

15. Og sem þeir fóru epter þeim til Jordanar: siá! þá lá fullt um alla vegu af kerum og klædum, er Syri høfdu kastad frá ser, þá þeir flyttu ser. Enn sem sendemenn komu aptur, og undervísudu þetta kongenum,

16. Þá geck fólked út, og rænte herbúder þeirra Syra. Og þar kostade mæler similiu miøls einn sekel, og tveir mælerar byggs einn sekel, epter ordum Drottins.

17. Enn kongurenn tilsette þann riddara ad vera í borgarhlide vid hvers hønd kongurinn hafde studt sig, og fólked fóttrad hann til bana í borgarhlidenu, so sem Guds madur hafde sagt, þá kongurenn geck ofann til hans.

18. Og þad skede sem Guds madur sagde til kongsins, þá hann so sagde: á morgun um þennann tíma skulu tveir mælerar byggs kaupast fyrer einn siklum, og einn mæler similiu miøls fyrer einn sikel, í Samaria borgarhlide.

19. Og sá riddare sem svarad hafde Guds manne, og sagt: siá! þó Drottinn gere glugga á himnenum, hvernenn má þvilíkt ske? hann svarade: siá! þú skallt med þínum augum horfa á þad, enn eigi eta þar af.

20. Og þad skede hann so, þviad hann vard fóttrodenn af fólkenu í borgarhlidenu, so hann let lífed.

## 8. Capitule.

1. Eliseus talade vid þá kvinnu hverrar sonur hann hafde lifande gert, og sagde: tak þig upp og far

hedann med sínu hyske, og vert útlend hvar þú kannt, þviad Drottinn mun kalla hallære, þad mun koma í landed í siø ár.

2. Kvinnann bió sig, og gerde sem Guds madur sagde: og fór burt med sínu hyske, og utlendtist í lande Philistinorum í siø ár.

3. Enn ad þeim siø árum lidnum, þá kom kvinnann aptur af lande Philisteanna, og hun geck út, ad kalla til húss síns og akurs, fyrer kongenum.

4. Enn kongurenn var þá á tale vid Guds manns þenara Giezi, og sagde: framm seig þú mer øll þau stórvirke sem Eliseus hefir gert.

5. Og í þvi bile sem hann sagde konge hvernenn hann hafde gert einn daudann lifanda: siá! þá kom sú kvinna í þann sama stad, hverrar son' ad hann hafde gert lifande, og hrópade til kongsins um sitt hús og akur. Þá sagde Giezi, minn Herra kongur: þesse er sú kvinna, og þesse er hennar sonur, sem Eliseus lífgade.

6. Þá spurde kongurenn kvinnuna, og hún sagde hønum þad. Sídann feck kongurenn til einn gellding, og sagde: lát hana fá aptur allt þad henne tilheyrer, so og alla ávøxtu akursins, frá þvi hun flyde landed, og allt til þessa.

7. Og Eliseus kom til Damascum. Þá lá Benhadad Syrlands kongur siukur, og hønum var undervísad og sagt: ad Guds madur være komenn þangad.

8. Þá sagde kongurenn til Hasael: tak giafer med þer, og gáck imót Guds manne, og spyr Drottinn ad fyrer hann, og seig: hvert eg mune verda heill þessarar sottar?

9. Hasael geck imóte hønum, og tók gáfur med ser, og allra handa gots í Damasco, fiørutiu ulfallda klifiar. Enn sem hann kom geck hann framm fyrer hann, og sagde: þinn sonur Benhadad, kongur í Syria, sende mig til þín, og lætur seigia þer, mun eg verda heill þessa siúkdoms?

10. Eliseus svarade hønum: far burt og seig hønum, þu skallt verda heill. Enn Drottinn hefir synt mer, ad hann mune vissulega deya.

11. Og Guds madur harkade af ser, bar sig illa, og gret.

12. Þá sagde Hasael til hans: þvi grætur minn Herra? hann svarade: þvi eg veit þad-illa sem þú munt gera Israels børnum. Þú munt uppbrenna þeirra sterkar borger med elde, og slá þeirra æskumenn ihel med sverde, og deyda þeirra ungbørn, og sundur snída þeirra þungadar kvinnur.

13. Hasael svarade: hvad er þinn þenare, einn huudur, ad hann skal gera so stora hlute? Eliseus sagde: Drottinn hefir opennberad mer þad, ad þú skuler verda kongur í Syria.

14. Og hann geck frá Eliseo, og kom til síns Herra, og hann sagde til hans: hvad sagde Eliseus þer? hann svarade: hann sagde mer ad þer skyllde batna.

15. Enn annars dags þar epter tók hann eitt sængarklæde, og dyfde þvi í vatn, og breidde þad yfer sig, þá dó hann. Enn Hasael vard kongur í hans stad.

16. A þvi fimmta áre Jorams, sonar Achabs, Israels kongs, vard Joram, sonur Josaphats, kongur í Juda.

17. Hann hafde tvo vetur um þrítugt þá hann vard kongur, og ríkte átta ár í Jerusalem.

18. Og framm fór epter Israels konga veige, so sem Achabs hús gerde, þvi dotter Achabs var hans

kvinna, og hann gerde þad sem Drottne illa likade.

19. Enn Drottinn villde eigi fordiarfa Juda, sökum sins þenara Davids, so sem hann hafde talad til hans, ad gefa hönum ætid eitt liös, á medal hans barna.

20. Enn á hans tima fellu Edomitar frá Juda, og settu einn kong yfer sig.

21. Hviad Joram fór i gegnum Zair, og aller vagnarner med hönum, og hann tók sig upp um nótt, og sló þá Edomita sem voru i kringum hann, so og lika höfdingia yfer vögnönum, so ad fólked slyde til sinna heimela.

22. Þvi fellu Edomitar frá Juda allt til þessa dags. Og Libna fell og so frá á þeim sama tima.

23. Hvad meira er ad seigia um Joram, og allt þad hann gerde: siá! þad er skrifad i Juda konga Chronicu.

24. Og Joram andadest med sinum fedrum, og var jardadur med sinum fedrum i borg Davids. Enn hans sonur Ahasia vard kongur i hans stad.

25. A þvi tolfta áre Jorams, sonar Achabs, Israels kongs, vard Ahasia, sonur Jorams, kongur i Juda.

26. Ahasia hafde tvo um tvitugt þá hann vard kongur, og rikte eitt ár i Jerusalem; hans moder het Athalia, dotter Amri Israels kongs.

27. Og hann geck á vegum Achabs húss, og gerde þad sem Drottne illa likade, so sem Achabs hús, þvi hann var mægdur Achabs húse.

28. Og hann fór i strid med Joram, syne Achabs, á móte Hasael, konge af Syrlande, til Ramoth i Gilead, enn þeir Syrlendsku slóu Joram.

29. Þá snere Joram kongur aftur ad láta lækna sig i Jesreel, af þeim sárum sem þeir Syri höfdu veitt hönum i Rama, þa hann bardest vid kongenn af Syria. Og Ahasia, sonur Jorams, Juda kongur, fór ofann til fundar vid Joram, son Achabs, til Jesreel, þvi hann lá kránkur.

## 9. Capitule.

1. Og Eliseus spámadur kallade á einn spámanna son, og sagde til hans: gyrd þinar lendar, og tak þessa vidsmiörs krús med þer, og far til Ramoth i Gilead.

2. Og þá þú kemur þangad, þá munt þú þar siá Jehu, son Josaphat, sonar Nimsi. Gáck þú þar inn, og biod þú hönum ad standa upp á medal sinna brædra, og leid hann inn i þad innsta herberge.

3. Og tak vidsmiörs krusena, og helltu yfer hans höfud, og seig, so seiger Drottinn: eg hefe smurt þig til kongs yfer Israel. Og þú skallt uppláta dyrnar og skya, og tefia eigi vid.

4. Og sveinnenn, spámannsins þenare, fór burt til Ramoth i Gilead.

5. Og sem hann kom þangad inn: siá! þá sátu hershefdingiar þar, sem setter voru yfer herinn. Og hann sagde: eg hefe nockud ad seigia þer: höfudsmadur! Jehu sagde: hverum á medal vor allra? hann sagde: þer höfudsmadur.

6. Þá stód hann upp, og geck inn, enn hann hellte vidsmiörenu yfer hans höfud, og sagde til hans: so seiger Drottinn Israels Gud. Eg hefe smurt þig til kongs, yfer Drottins folk Israel.

7. Og þú skallt slá hús Achabs þins Herra, so eg hefne spámannanna blods, minna þenara, og all=

ra Drottins þenara blods, af Jesabels hende.

8. So ad allt Achabs hús eyde leggist. Og eg vil uppræta af Achab allt karlkyn, og þann inneluckta, og þann forlátna í Israel.

9. Og eg vil gera Achabs hús eins so sem hus Jeroboams, sonar Nebat, og so sem hús Baesa, sonar Ahia.

10. Og hundar skulu upp eta Jesabel á Jesreels akre, og engenn skal jarda hana. Og hann let upp dyrnar og flyde.

11. Og sem Jehu geck út til síns Herra þenara, þá søgdu þeir til hans: gengur vel til? því kom þesse hinn gali til þín? hann svarade þeim: þer þecktud mannenn vel, og so hvad hann sagde.

12. Þeir svørudu: Þad er eigi satt, seig þu oss þad. Hann sagde: so og so talade hann til mín, og sagde: so seiger Drottinn, eg hefe smurt þig til kongs yfer Israel.

13. Þá hlupa þeir til, og hver tók sín klæde, og breidde þau under hann, á þær háfu trøppur. Og blesu í basunur, og søgdu, Jehu er ordenn kongur.

14. Epter þetta gerde Jehu, sonur Josaphat, sonar Nimsi, eitt satt mál á mote Joram. Enn Joram sat um Ramoth í Gilead med allann Israel, móte Hasael, konge af Syrlande.

15. Og kongur Joram var þá komenn aptur, ad láta græda sig í Jesreel, af þeim sárum sem Syri veittu hønum, þá hann bardest vid Hasael kong af Syria. Og Jehu sagde: ef ydur so lyst, þá skal engenn undann komast af stadnum, ad fara og bera niosn um þetta til Jesreel.

16. Og hann let færa sig, og ferdadest til Jesreel, þviad Joram lá þar. So og var Ahasia kongur Juda ofann farenn ad sjá Joram.

17. Enn sem vaktarenn, (sem var uppá Jesreels borgar) turne, sá flock Jehu komanda, þá sagde hann: eg se einn flock. Þá svarade Joram: kalla þú á einn reidmann, og send imóte þeim, og seig: er fridur?

18. Sendemadurenn reid imóte hønum, og sagde: so seiger kongurenn, er fridur? Jehu svarade: hvad vardar þig um frid? snú þer bak epter mer. Vaktarenn kunngerde þad, og sagde: sendemadurenn kom til þeirra, og kemur eigi aptur.

19. Þá sende hann einn annann mann á heste. Og sem hann kom til hans, sagde hann: so seiger kongurenn, er fridur? Jehu sagde: hvad liggur þer magt á fride, snú þer bak epter mer.

20. Vardhalldsmadurenn kunngerde þad, og sagde: hann kom til þeirra: og kemur eigi aptur. Og þad er før, líka sem før Jehu, sonar Nimsi, því hann fer líka sem hann være galenn.

21. Þá sagde Joram: spanned mína hesta fyrer vagn. Og þeir spenntu fyrer hans vagn. Og þeir ferdudust út, Joram Israels kongur, og Ahasia Juda kongur, hver á sínum vagne, ad koma til mots vid Jehu. Og þeir fundu hann á akre Naboth Jesreeliter.

22. Og þá Joram sá Jehu, sagde hann: er fridur Jehu? hann svarade: hvada fride? hórdómar módur þinnar Jesabel og hennar fiølkinge vara alltíd.

23. Þá snere Joram sinne hende, og flyde, og sagde til Ahasia: svik eru á ferdum, Ahasia!

24. Og Jehu þreif einn boga, og laust ør millum handleggia Jorams, so ad pílann flaug í gegnum

hans hiarta, og hann fell í sín kerru.

25. Og hann sagde til riddarans Bidekar: tak hann, og snara þú hønum á akurpart Naboth Jesreeliter. Hvíad þad man eg, ad vid forum í einum vagne epter hans fødur, ad Drottenn upplypte þess um þunga yfer hann.

26. Hvad skal gillda, sagde Drottinn: eg vil bitala þer á þessum akre, Naboths blod og hans barna sem eg sí í gær? þar fyrer tak hann nú, og kasta hønum á akurenn, epter ordum Drottins.

27. Enn sem Ahasia, Juda kongur, sá þad, þá flyde hann á veigenn, til grasgards hússens. Enn Jehu sokte epter hønum, og baud og so ad drepa hann upp á vagnenum allt til Gur, sem liggur hiá Jebláam, enn han flyde til Megiddo og dó þar.

28. Enn hans sveinar letu flytia hann til Jerusalem, og jørdudu hann í sinne grøf, med hans forfedrum, í borg Davids.

29. Enn Ahasía ríkte yfer Juda á því ellefta áre Jorams, sonar Achabs.

30. Enn sem Jehu kom til Jesreel, og Jesabel fornam þad, fegrade hun sitt andlit, og prydde sit høfud, og gægdest út um vindaugad.

31. Enn sem Jehu kom under stadar ported, sagde hún: geck vel Simri, sem ad drap sinn Herra?

32. Og hann leit upp ad glugganum, og sagde: hver er her hiá mer? þá sneru ser tveir eda þrír gelldingar til hans.

33. Hann sagde: hrinded henne ofann. Og þeir køstudu henne of ann, so ad hennar blód stöcktist á veggena, og á hestana, og hun vard under trodenn.

34. Enn sem hann var inn kominn, og hafde eted og drucked, sagde hann: siáed þó þá enu bølvudu, og jarded hana, því hún er kongs dótter.

35. Enn sem þeir fóru af stad, og villdu jarda hana, fundu þeir eigi par af henne, utann hausskelina, og fæturnar, og hennar lófa.

36. Og þeir komu aptur og kunngerdu hønum þad. Hann svarade: þetta er þad sem Drottinn talade fyrer sinn þenara Eliam Thesbiten, seigiande: hundar skulu eta Jesabels holld á Jesreels akre.

37. So vard Jesabels hræ líka sem óþeckt á akre, á Jesreels akre, so ad engenn mátte þad seigia: þetta er Jesabel.

## 10. Capitule.

1. Achab átte siøtíu sonu í Samaria, og Jehu skrifade bref, og sende þad í Samariam, til þeirra yppurstu af þeim stad Jesreel, og til þeirra ellstu, og til fósturfedra Achabs, so látande.

2. Þá þesse bref koma til ydar þer sem hafed ydars Herra sonu hiá ydur, vagna, hesta, sterkar borger, og herklæde,

3. Þá siáed (ydur um) hver þar se bestur og hendtastur, af sonum ydars Herra, seted hann á stól hans fødurs, og stríded so fyrer ydars Herra hús.

4. Enn þeir urdu miøg óttaslegner, og søgdu: siá! tveir kongar stódust eigi fyrer hønum: hvernenn vilum ver þá standa?

5. Og þeir sem voru setter yfer húsed, og yfer borgena, og þeir ellstu, og fósturfedurner, sendu af stad til Jehu, og letu seigia hønum: ver erum þíner þiónar, ver vilum gera hvad helst sem þú seiger oss, eng-

ann vilum ver til kongs setia, ger hvad þer líkar.

6. Þá skrifade hann annad breif til þeirra, so látande: so framt sem þer erud míner, og viled þer hlyda minne raust, þá afhøfded mennena ydars Herra syne, og færed mer þa á morgun um þetta mund til Jesreel. Enn kongsins syner voru siøtíu menn (og þeir enu yppurstu í stadnum fóstrudu þá upp).

7. Og sem brefed kom nú til þeirra, þá tóku þeir til kongsins syne, og slátrudu siøtíu mønnum, og løgdu þeirra høfud í karfer, og sendu þau til hans í Jesreel.

8. Og sem sendemadurenn kom og undervísade hønum, og sagde: þeir hafa fært hingad kongsins barna høfud, sagde hann: legged þau í tvær hrugur fyrer dyrnar á portenu til morguns.

9. Enn sem hann geck út um morgunenn, geck hann þangad, og sagde til alls folksins: þer viled endelega hafa rett? siá! hafe eg gert sáttmál imóte mínum Herra, og dreped hann, hver hefir þá fleiged alla þessa íhel?

10. So siáed nú, ad þar er eigi neitt af Drottins orde falled á jørd, sem Drottinn talade á móte Achabs húse, og Drottinn hefir gert so sem hann talade fyrer sinn þion Eliam.

11. So sló Jehu þá alla íhel, þá sem epter lifdu af Achabs húse í Jesreel, øll hans mikelmenne, og alla hans frændur, og hans presta, so lenge ad þar var hønum eigi einn epter.

12. Og hann tók sig upp og fór af stad, og kom til Samariam. Þar var eitt fiárhús á veigenum.

13. Þar fann Jehu Ahasia Juda kongs brædur, og sagde: hverer erud þer? þeir søgdu: ver erum Ahasia brædur, og vilum nú fara ofann ad heilsa børnum kongsins og drottningarennar børnum.

14. Og hann sagde: gríped þá lifande. Og þeir gripu þá lifande, og slátrudu þeim hiá þeim brunne sem stéd hiá fiárhúsenu, tvo menn þins fimmta tugar, og letu eigi einn mann verda epter af þeim.

15. Enn sem hann ferdadest þadann fann hann Jonadab son Rechab, hver ed mætte hønum, og hann heilsade hønum, og sagde til hans: er þitt hiarta rett, so sem mitt hiarta er med þínu hiarta? Jonadab svarade: iá. Se þad so, þá rett ad mer þína hønd. Og hann rette ad hønum høndena, og let hann sitia upp hiá ser í vagnenum.

16. Og sagde: far med mer ad siá mína vandlæting vegna Drottins. Og þeir flúttu hann med hønum á hans vagne.

17. Enn sem hann kom í Samariam, þá sló hann þá alla íhel sem þar voru epter ordner af Achab í Samaria, allt þar til hann hafde eydelagt hann epter orde Drottins, sem hann sagde til Eliam.

18. Og Jehu samansafnade øllu fólkenu, og let seigia til þeirra: Achab dírdkade Baal litt, Jehu vill þióna hønum betur.

19. Þar fyrer láted nú kalla saman hingad til mín alla Baals spámenn, alla hans þenara, og alla hans presta, so ad ei verde eins saknad, þviad eg hefe miked offur ad fórnfæra Baal. Hvers sem saknad verdur hann skal missa lífed. Enn Jehu gerde þetta til klokleika, so ad hann feinge eydelagt Baals þenara.

20. Og Jehu sagde: helged Baal þessa hátíd, og láted úthrópa.

21. Og Jehu sende til allra Israelita, og let alla Baals þenara kóma, so þar var eigi einn epter

sem eigi kom. Og þeir komu í Baals hús, so ad Baals hús var fullt sem mest mátte inne vera.

22. Þá sagde hann til þeirrá sem setter voru syrer klæda húsed, þered út klæde handa øllum Baals þenørum. Og þeir báru út klædenn.

23. Þá geck Jehu inn í Baals kyrkiu, med Jonadab, syne Rechab, og sagde til Baals þenara, rannsaked og siáed til, ad her se engenn þenare Drottins á medal ydar, helldur alleinasta Baals þenarar.

24. Enn sem þeir komu inn, ad gera offur og brenneförner, þá sette Jehu áttatíu menn fyrer utann dyrnar, og sagde: ef þer láted nockurn af þeim mønnum undann komast, sem eg gef nú under ydar hendur, þá skal þess sama sál vera fyrer hans sál.

25. Þá er hann hafde utendad brenneoffred, þá sagde Jehu til drabantanna, og riddaranna, fared nú inn, og dreped hvern mann, og láted engann komast út. Og þeir slóu þá alla med sverdseggium, og drabantarner og riddararner køstudu þeim burt. Og þeir gengu til Baals kyrkiu borgar.

26. Og útbáru skurgodenn, af Baals kyrkiu, og uppbrenndu hana.

27. Og þeir brutu sundur Baals skurgod med Baals kyrkiu, og gerdu eitt heimuglegt nádhús þar af, allt til þessa dags.

28. So eydelagde Jehu Baal af Jsrael.

29. Enn Jehu let eigi af Jeroboams syndum, sonar Nebats, hver ed Jsrael kom til ad syndgast, ut af þeim gullkálfum í BethEl, og í Dan.

30. Og Drottinn sagde til Jehu: søkum þess, ad þu hefir so mikla ástundan lagt á ad gera þad sem mer hefir likad, og þú gerder imót Achabs húse allt þad sem í mínu hiarta bió, þá skulu þín børn sitia á Jsraels stóle, inn til fiórda lids.

31. Enn þó geymde Jehu eigi, ad hann genge í Drottins løgmále, af øllu hiarta, þvi hann linnte eigi af Jeroboams syndum, sem kom Jsrael til ad syndgast.

32. Á þeim sama tíma tók Drottinn til ad láta ser leidast Jsrael, þvi Hasael sló þá í øllum Jsraels landamerkium.

33. Frá Jordan mót solarennar uppkomu, og allt land Gilead, Gad, Ruben, og Manasse, frá Aroer, sem liggur hiá Arnons læk, og Gilead, og Basan.

34. Enn hvad meira er ad segia um Jehu, og allt þad hann hefir gert, og alla hans magt: siá! þad er skrifad í Jsraels konga Chronicu.

35. Og Jehu sofnade med sínum fedrum, og þeir jørdudu hann í Samaria. Og Joachas, hans sonur, vard kongur í hans stad.

36. Enn sá tíme sem Jehu ríkte yfer Jsrael í Samaria eru átta og tuttugu ár.

## 11. Capitule.

1. Enn Athalia, moder Ahasia, þá hún sá ad sinn sonur var daudur, tók hún sig upp, og let drepa allt konunglegt kin.

2. Enn Joseba, dotter Jorams kongs, Ahasia syster, hún tók Joas, son Ahasia, og stal hønum (undann) frá kongsins børnum, sem í hel voru sleigenn, med hans fóstru í svefnherbergenu. Og hann var geymdur fyrer Athalia, so hann var eigi deyddur.

3. Og hønum var leynt med henne, í húse Drottins, sex ár. Enn Athalia var drottning í landenu.

4. Enn á þvi siøunda áre sende

Jojada út, og tók til sín þá enu yppurstu yfer hundrad, med høfudsmønnsnum, og hirdmønnønum, og let þá koma til sín í Drottins hús, og gerde sáttmál vid þá, og tók einn eid af þeim, í Drottins húse, og synde þeim kongsins son.

5. Og hann baud þeim, og sagde: Þetta er nú það sem þer skulud gera, þrídi partur af ydur, sem þvottdagurinn til fellur, skal hallda vørd í kongsins húse.

6. Og enn þrídi partur skal vera hiá þvi porte Sur, og einn þrídi partur hia þvi porte sem liggur á bak stríðsmannanna, þer skulud og hallda vørd yfer Massa húse.

7. Enn tveir partar af ydur øllum, sem frá sabbatenu sleppa, skulu hallda vørd í húse Drottins, kringum kongenn.

8. Og þer skulud vera í kringum kongenn, og hver med sitt vopn í hende. Og ef nockur gengur inn ó millum radanna sá skal deya, ad þer skulud vera hiá kongenum, nær hann gengur út og inn.

9. Og hundradshøfdingiarner gerdu allt það sem Jojada prestur baud deim, og þeir tóku sína menn med ser sem þvottdagurenn tilfell, med þeim sem þvottdeigenum slepptu, og komu til Jojada prests.

10. Enn presturenn feck høfudsmønnønum spiot og skiølldu, sem átt hafde David kongur, og voru í húse Drottins.

11. Og drabantarner stódu í kringum kongenn, hver med sinne veriu í hende, frá þvi horne hússens til hægre handar, til hornsins til vinstre handar mót alltarenu, og til hússens.

12. Og hann let kongsins son koma framm. Og hann sette korónuna á hann, og afhendte hønum vitnisbúrdenn, og þeir gerdu hann til kongs, og vorn fagnande, og kløppudu løfum samann, og søgdu: kongurenn fáe luctu!

13. Enn sem Athalia heyrde háreyste folksins sem þangad hliop, þá kom hún til folksins, í Drottins hús, og sást um.

14. Og siá, þá stod kongurenn vid stolpann, so sem sidur var til, enn saungvararner og trometararner hiá kongenum, og allt landsfólked var fagnande, og blesu í basunur. Þá reif Athalia í sundur sín klæde, og sagde: upphlaup, upphlaup.

15. Enn Jojada prestur baud þeim hundradshøfdingium, hverer ad setter voru yfer Herenn, og sagde til þeirra: leided hana út af húsenu í gardinn, og hver sem fylger henne hann deye fyrer sverde, þvi presturenn hafde sagt, hún skal eigi deya í Drottins huse.

16. Og þeir løgdu hendur á hana, og hún geck inn þann veg sem hestarner gengu til kongsins húss, og var þar drepenn.

17. Þá gerde Jojada eitt sáttmál á millum Drottins og kongsins, og folksins, ad þeir skylldu vera Drottins folk, so og líka millum kongsins og folksins.

18. Þá geck allt landsfólked í Baals kyrkiu, og nidur braut hans alltare, og nidur braut hans bilæte rett vel, og þeir slóu Mathan Baals prest íhel fyrer alltarenu. Enn presturenn skickade nidur embættum í húse Drottins.

19. Og hann tók þá yppurstu yfer hundrad, og høfudsmennena, og hyrdmennena, og allt fólked landsins, og þeir færdu kongenn ofann frá Drottins húse, og komu á veigenn, þann (sem lá) fra hyrdmanna portenu, til kongsins húss, og hann sette sig í konganna stól.

20. Og allur landslydur vard gladur, og borgenn stødvadest. Enn þeir slóu Athaliam til dauds med sverde í kongsins húse.

21. Og Joas var siø ára gamall þá hann vard kongur.

## 12. Capitule.

1. A þvi siounda áre Jehu vard Joas kongur, og ríkte fiørutíu ár í Jerusalem. Hans móder het Sibea, af Bersaba.

2. Og Joas gerde þad sem rett var, og Drottne vel þocknadest, so lenge sem Jojada prestur lærde hann.

3. Utann þad, ad hann tók eigi af hædernar, þviad fólked færde fórner og brennde reykelsenu enn þá á hædønum.

4. Og Joas sagde til kennemannanna: aller þeir peningar sem helgader verda, og berast í Drottins hús, peningar af hverum sem framm gengur, þeir peningar sem hver madur gefur í skatt fyrer sína sálu, og aller þeir peningar sem hver madur offrar af friálsu hiarta, ad þeir skulu berast í Drottins hús,

5. Þá take prestarner þá til sín, hver af sínum kunningium. Og af þvi skulu þeir endurbæta þad sem hrørnar í Drottins húse, hvar sem þeir merkia ad umbótar vid þurfe.

6. Enn þá prestarner høfdu eigi endurbætt þad sem broted var á Drottins húse, á þvi þridia og tuttugasta áre Joas kongs,

7. Þá kallade Joas kongur Jojada prest, og prestana, og sagde til þeirra: hvi hafed þer eigi endurbætt þad sem hrørnad er á húsenu, so skulud þer nú eigi taka þá peninga til ydar, hver af sínum kunningia, enn legged þad framm til musterisins forbetrunar.

8. Og þetta samþycktu prestarner, ad þeir skylldu enga peninga taka af fólkinu, og bæta þad sem þurfte af musterenu.

9. Þá tók Jojada prestur eina hyrdslu, og gerde eitt gat þar ofaná, og sette hana hægrameigenn hiá alltarenu, þar sem inn var genged í Drottins hús. Og þeir prestar sem tóku vara vid þrøskølldenn, løgdu þar í alla þá peninga sem færder voru til Drottins hus.

10. Enn sem þeir sáu, ad þar var allmiked fe í hyrdslunne, þá kom kongsins skrifare, og sá ypparste kennemadur þar upp, og bundu fe tilsamans, og reiknudu þad sem funded var fyrer Drottins húse.

11. Og menn gáfu þad fe alldeilis til þeira sem erfidudu og skickader voru til Drottins huss, og þeir gáfu þad tresmidønum, sem bygdu og erfidudu uppá Drottins hús,

12. Múrmeistørum og steinkløppørum, og þeim er keyptu tre, og hoggna steina, so ad þad sem broted var á Drottins húse skyllde endurbætast, og allt þad sem þeir fundu ad þørf var, ad endurbætast skyllde á húsenu.

13. Enn þó letu menn eigi gera silfur skáler, psalterium, munnlaugar, basunur, eda nøckur ker af gulle, edur silfre í Drottins húse, af þeim peningum sem bárust til húss Drottins.

14. Helldur var þad gefed þeim Verk mønnum, ad þeir skylldu þar med endurbæta þad sem broted var af húse Drottins.

15. Enn eige þurftu þeir menn ad standa reikningskap þar af, hverium er giallded var feinged til, ad þeir feinge þad Verkmønnønum, helldur høndludu þeir uppá trú.

16. Enn þad fe af skulldaoffre og syndaoffre var eigi bored

í Drottins hús, þvi þad heyrde prestonum til.

17. A þeim tíma fór Hasael, kongurenn af Syria, upp, og heriade á (borgena) Gath, og hann vann hana. Enn sem Hasael snere sínu andlite til ad fara upp til Jerusalem,

18. Þá tók Joas, Juda kongur, allt þad hid helgada, þad sem hans forelldrar, Josaphat, Joram, og Ahasia, kongar í Juda høfdu helgad, og þad hann hafde siálfur helgad, þar til allt þad gull sem menn fundu í Drottins húss fesiodum, og í kongsins húse, og sende til Hasaels Syrlands kongs. Vid þad hvarf hann frá Jerusalem.

19. Hvad meira er ad seigia um Joas, og allt þad sem hann gerde, þad er skrifad í Juda konga Chronicu.

20. Og hans þenarar tóku sig upp, og gerdu einn sáttmála, og drápu hann í húsenu Millo, þar madur gengur ofann til Silla.

21. Þviad Josabar, sonur Simeath, og Josabad, sonur Somer, hans þenarar, þeir slóu hann ihel. Og hann var jardadur med hans forfedrum í Davids stad. Og Amazia, hans sonur, vard kongur í hans stad.

## 13. Capitule.

1. A þvi þridia og tuttugasta áre Joas, sonar Ahasia Juda kongs, vard Joachas, sonur Jehu, kongur yfer Israel í Samariá í seytian ár.

2. Og hann framde þad sem Drottne illa likade, og geck epter syndum Jeroboams, sonar Nebat, sem kom Israel til ad syndgast, og hann let eigi þar af.

3. Og reide Drottins gramdest yfer Israel, og hann gaf þá i under hendur Hasaels kongs af Syria, og Benhadad sonar Hasaels, so leinge sem þeir lifdu.

4. Enn Joachas bad til Drottins auglitis, og Drottinn bænheyrde hann, þvi hann sá Israels ánaud, hvernenn kongurenn af Syria þreyngde þeim.

5. Og Drottinn gaf Israel einn hiálparmann, sem þá frelste af vallde Syrlendskra, so ad Israels børn biuggu í sínum tialldbúdum, eins og ádur.

6. Enn þó løgdu þeir eigi af synder Jeroboams húss, hver ed kom Israel til ad syndgast, helldur gengu þeir framm í þeim. Lundurenn í Samaria stód og so.

7. Þvi þar var eigi fleyra epter orded af Joachas fólke helldur enn fimmtíu riddarar, og tíu vagnar, og tíu þusund fotgaungulids. Þviad Syrlands kongur hafde fyrerkomed þeim, og hafde gert þá sem prestkiara ryk.

8. Hvad meira er ad seigia um Joachas, og allt hvad hann gerde, og hans magt: siá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu

9. Og Joachas sofnade med sínum fedrum, og var jardadur í Samaria. Og hans sonur Joas vard kongur í hans stad.

10. A þvi seytianda og tuttugasta áre Joas, Juda kongs, vard Joas, sonur Joachas, kongur yfer Israel í Samaria, sextan ár.

11. Og hann gerde þad sem Drottne illa likade, og let eigi af øllum syndum Jeroboams, sonar Nebats, sem kom Israel til ad syndgast, helldur geck hann framm í þeim.

12. Enn hvad meira er ad seigia um Joas, og hvad hann gerde, og hans magt, og hvernenn hann stridde vid Amazia, Juda kong: siá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

13. Og Joas sofnade med sínum fedrum. Og Jeroboam sat á hans stóle. Enn Joas var jardadur í Samaria hiá Israels kongum.

14. Og Eliseus vard siúkur, hvar af hann andadest. Og Joas Israels kongur kom ofann til hans, og gret fyrer hønum, og sagde: minn fader! minn fader! Israels vagn og hans riddarar!

15. Enn Eliseus sagde til hans: tak þinn boga og ørvar. Og sem hann tók bogann og ørvarnar,

16. Sagde hann til Israels kongs: spanna þú upp bogann med þinne hende. Og hann uppspannade hann med sinne hende. Sídann lagde Eliseus sína hønd uppá kongsins hønd.

17. Og sagde: opna gluggann í mót austre. Og hann opnade hann. Þá sagde Eliseus, skiót. Og hann skaut. Hann sagde: hiálpræðis ør af Drottne, ein sigur ør í mót Syros, og þú munt slá þá Syros í Aphek, þar til þeir verda ad engu.

18. Og hann sagde: tak pílurnar. Og sem hann tók þær, þá sagde hann til Israels kongs: slá þú á jørdena. Og hann sló þrim sinnum, og stód kirr.

19. Þad mislíkade Guds manne vid hann, og sagde: hefder þú sleiged fimm eda sex sinnum, þ í skylder þú hafa sleiged þá Syros, þar til þeir hefdu orded ad engu, enn nú munt þú slá þá þrisvar.

20. Enn sem Eliseus var nú andadur, og þeir høfdu jardad hann, þá fell stridsfolk Moabitarum inn í landed, á þvi sama áre. Og þad skede so, ad þeir jørdudu einn mann. Og sem þeir sáu stridsfólked, køstudu þeir mannenum í Elisei grøf.

21. Og sem hann kom þangad, og kom vid bein Elisei, þá vard hann lifande, og stód upp á sínar fætur.

22. So þvingade nú Hasael, kongurenn af Syria, Israel, sy lenge sem Joachas lifde.

23. Enn Drottinn var þeim nádugur, og sá aumur á þeim, og snere sér til þeirra: søkum síns sáttmála, vid Abraham, Isaac, og Jacob, og villde eigi eyda þeim, og kastade þeim ei frá sínu andlite, allt til þessarar stundar.

24. Og Hasael, Syrlands kongur, andadest, og hans sonur Benhadad vard kongur í hans stad.

25. Og Joas snerest vid, og tók þá stade af Benhadads Hasaels syni, ar hende sem hann hafde med orlogum under sig teked frá Joachabs, hans fødurs hende. Og þrisvar sló Joas hann, og kom aptur borgunum under Israel.

## 14. Capitule.

1. Á ødru áre Joas, sonar Joachas, Israels kongs, vard Amazia kongur, sonur Joas, kongur yfer Juda.

2. Hann hafde fimm um tvítugt þá hann vard kongur, og ríkte níu og tuttugu ár í Jerusalem, hans moder het Joadan, af Jerusalem.

3. Og hann gerde þad sem Drottni vel líkade. Enn þó ei sem hans fader David, helldur eins so sem hans fader Joas.

4. Þviad eigi voru afteknar þær hæder, helldur offrade fólked, og brennde reykelse enn nú á hædum.

5. Enn sem hann vard nú megtugur í sínu kongsríke, þá tók hann af líse þá þenara sem sleiged høfdu kongenn hans fødur íhel.

6. Enn sonu þessara manndrápara drap hann eigi, epter því sem þad stendur skrifad í Moses løgmáls bók, þar Drottinn baud so, og sagde: forelldrarner skulu eigi

deya fyrer saker barnanna, og eigi børnenn fyrer saker forelldranna, helldur skal hver og einn deya fyrer sína synd.

7. Hann sló og tíu þusund af þeim Edomitum, í Salltdalnum, og vann borgena Sela med strýde, og kallade hana Jaktheel, inn til þessa dags.

8. Sídann sende Amazia menn til Joas, sonar Joachas, sonar Jehu, kongsins í Israel, og let seigia hønum: kom her og siáe hver ockar annann.

9. Enn Joas, Israelis kongur, sende bod til Amazia, Juda kongs, og let seigia hønum so: þyrnebuskurenn, sem er í Libanon, sende bod til Cedrustresins í Libanon, og let seigia hønum: gef mínum syne þína dotter til eigenukonu. Enn villudyrenn í Libanon skóge hlupu yfer þyrnebuskinn, og trádu hann under fótum.

10. Þú hefir sleiged þá Edomita, og þvi upphefst þitt hiarta, hallt þú þeirre hrósan, og sit heima, þvi sæker þú epter ólucku? so ad þú faller, og Juda med þer?

11. Enn Amazia hlydde eigi. So fór Joas Israels kongur upp, og þeir sáust, hann og Amazia Juda kongur, í Bethsemes, sem liggur í Juda.

12. Enn Juda fell fyrer Israel, so ad hver flyde til síns heimelis.

13. Og Joas, Israels kongur, handtók Amazia Juda kong, son Joas, sonar Ahasia, í Bethsemes. Og hann kom til Jerusalem, og reif nidur Jerusalems múrvegge, frá Ephraims porte, og allt til hornhlids portsins, fiøgurhundrud alna langt.

14. Og hann tók allt gull og silfur, og þau ker sem fundust í Drottins huse, og alla fesiódu úr kongsins herberge, hermed tók hann og hans børn í Gisling, og fór so aptur í Samariam.

15. Hvad meira er ad seigia af Joas, og hvad hann gerde, og hver hans styrkur var, og í hvern máta ad hann strídde imót Amazia Juda konge: siá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

16. Og Joas sofnade med sínum fedrum, og var jardadur í Samaria, á medal Israelis konga, og hans sonur, Jerobeam, vard kongur í hans stad.

17. Amazia, sonur Joas, kongur Judæ, lifde epter dauda Joas, sonar Joachas, Israels kongs, simmtan ár.

18. Hvad meira er ad seigia af Amazia, þad er skrifad í Judæ konga Chronicu.

19. Og þeir gerdu sáttmála í mót hønum í Jerusalem. Enn hann flyde til Lachis; þá sendu þeir epter hønum til Lachis, og drápu hann þar.

20. Og þeir færdu hann á hestum, og hann var greftradur í Jerusalem, hiá hans forfedrum í Davids stad.

21. Og allur Juda lydur tók Asaria, þá hann var sextan ára gamall, og gerdu hann ad konge, í stadenn síns fødurs Amazia.

22. Hann bygde upp Elath, og lagde hann aptur til Juda, epter þad kongurenn var sofnadur med sínum fedrum.

23. A þvi simmtanda áre Amaziæ, sonar Joas, kongsins í Juda, vard Jeroboam, sonur Joas, kongur yfer Israel, í Samaria, eitt og fiørutíu ár.

24. Og hann gerde þad sem Drottne illa líkade, og let eigi af øllum syndum Jeroboams, sonar Ne-

bats, hver ed Israel kom til ad syndgast.

25. Enn hann vann aptur Israels landamerke, frá Hemath og inn til hafsins, sem ad liggur vid þá slettu mørk, epter Drottins Israels Guds orde, sem hann talade fyrer sinn þenara Jona, son Amithai, spámann, sem var af Gath Hepher.

26. Þvi Drottinn leit til Israelis ánaudarvesalldar, ad þeir inneluktu og fyrerlátnu í burtu voru, og þar var engenn hiálpare í Israel.

27. Enn Drottinn hafde eigi sagt, ad hann villde eydeleggia Israelis nafn under himnenum, og hiálpade þeim fyrer Jeroboam, son Joas.

28. Hvad meira er ad seigia um Jeroboam, og allt þad hann gerde, og hans magt, hvernenn hann strídde, og hvernenn hann vann aptur Damascum og Hemath til Juda í Israel: siá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

29. Og Jeroboam sofnade med sínum fedrum Israels kongum, og hans sonur Sacharia vard kongur í hans stad.

## 15. Capitule.

1. Á þvi siaunda og tuttugasta áre Jeroboams Israels kongs, vard Asaria kongur, sonur Amazia Juda kongs.

2. Og hann var sextan ára gamall þá hann vard kongur, og hann ríkte tvo og simmtíu ár í Jerusalem, hans moder het Jechalia, af Jerusalem.

3. Og hann gerde þad sem Drottni vel þocknadest, í allann máta sem hans fader Amazia.

4. Fyrer utann þad þeir aftóku eigi hædernar, þvi fólked offrade enn þá og brennde reykelse á hædønum

5. Enn Drottinn plágade kongenn, so hann vard líkþrár allt til síns dauda, og bió í einu serlegu húse. Enn Jotham, kongs sonur, stiórnade húsenu, og dæmde fólked í landenu.

6. Hvad meira er ad seigia um Asaria, og allt hvad hann gerde: siá! þad er skrifad í Juda konga Chronicu.

7. Og Asaria sofnade med sínum fedrum, og menn jørdudu hann í Davids stad hiá hans forfedrum. Enn hans sonur Jotham vard kongur í hans stad.

8. Á þvi þrítugasta og áttunda áre Asaria, Juda kongs, vard Sacharia, sonne Jeroboams, kongur yfer Israel, í Samaria, sex mánude.

9. Og hann gerde þad sem Drottne mislíkade, eins og hans fedur høfdu gert. Hann let eigi af syndum Jeroboams, sonar Nebat, hver ed kom Israel til ad syndgast.

10. Og Sallum, sonur Jabes, gerde sáttmála imóte honum, og sló hann fyrer fólkenu, og drap hann, og vard kongur í hans stad.

11. Hvad fleyra er ad seigia af Sacharia: siá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

12. Og þetta er þad sem Drottinn talade til Jehu: Þíner syner skulu sitia á Israels stóle inn til fiorda lids, og þad skede so.

13. Og Sallum, sonur Jabes, tók kongdom á þvi nítianda og tuttugasta áre Asaria kongs Juda, og ríkte einn mánud í Samaria.

14. Þvíad Menahem, sonur Gadi, fór upp frá Thirza, og kom til Samariam, og sló Sallum, son Jabes, ihel, í Samaria, og vard kongur í hans stad.

15. Hvad meira er ad seigia af

Sallum, og um þann sáttmála sem hann gerde: sjá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

16. A þeim tíma sló Menahem Tiphsa, og alla þá sem voru þar inne, og þeirra landamerke af Thirta, fyrer þvi, ad þeir villdu eigi láta upp fyrer hønum. Og hann drap allar þeirra þungadar kvinnur, og sneid þær í sundur.

17. A þvi nitianda og tuttugasta áre Asaria, Juda kongs, vard Menahem, sonur Gadi, kongur yfer Israel, í tíu ár, í Samaria,

18. Og hann gerde þad sem Drottne illa líkade, þvi hann let eigi af syndum Jeroboams, sonar Nebat, á øllum sínum døgum, hver ed kom Israel til ad syndgast.

19. Og Phul, kongurenn af Assyria, kom í landed, og Menahem skeinkte Phul þusund centener silfurs, ad hann hellde med hønum, og stirkte hann til ríkis.

20. Og Menahem lagde (fe) giølld á þá ríkustu í Israel, so ad hver af þeim skyllde gefa fimmtíu sikløs silfurs, ad hann gæfe þá kongenum af Assyria. Sídann dró kongurinn af Assyria heim aptur, og stadnæmdest eigi í landenu.

21. Hvad meira er ad seigia um Menahem, og allt þad hann gerde: sjá! þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

22. Og Menahem sofnade burt med sínum fedrum, og Pekahia, hans sonur, vard kongur í hans stad.

23. A þvi fimmtugasta áre Asaria, kongsins í Juda, vard Pekahia, sonur Menahems, kongur yfer Israel, í Samaria, í tvø ár.

24. Hann gerde þad sem Drottne illa þocknadist. Þvi hann let eigi af Jeroboams syndum, sonar Nebats, sem kom Israel til ad syndgast.

25. Og Pekah, sonur Remalia, einn riddare, gerde uppreist í móte hønum, og sló hann íhel í salnum, í kongs húsenu í Samaria, med Argob og Are, og fimmtíu menn med hønum af Gileads børnum, og hann vard kongur í hans stad.

26. Hvad meira er ad seigia af Pekahia, og allt þad hann gerde: sjá, þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

27. A þvi ødru og fimmtugasta áre Asaria, kongs Juda, vard Pekah, sonur Remalia, kongur yfer Israel í Samaria, í tuttugu ár.

28. Og hann gerde þad sem Drottne illa líkade, þvi hann let eigi af syndum Jeróboams, sonar Nebat, sem ad Israel kom til ad syndgast.

29. Enn í Pekah Israels kongs tíd kom Tiglath Pilleser, kongur af Assyria, og tók Hion, Abel Beth Maecha, Janoha, Kedes, Hazor, Gilead, Galilea, og allt land Nephthali, og flutte þá burt í Assyriam.

30. Enn Hosea, sonur Ela, gerde sáttmála móte Pekah, syne Remalia, og sló hann íhel, og vard kongur í hans stad, á þvi tuttugasta áre Jotham, sonar Usia.

31. Hvad meira er ad seigia um Pekah, og allt þad hann gerde, sjá, þad er skrifad í Israels konga Chronicu.

32. A þvi ødru áre Pekah, sonar Remalias Israelis kongs, vard kongur Jotham, sonur Usia Juda kongs.

33. Og hann var fimm og tuttugu ára gamall þá hann vard kongur, og hann ríkte sextan ár í Jerusalem. Hans moder het Jerusa, dotter Zadoch.

34. Og hann gerde þad sem Drottne vel líkade í allann máta, so sem hans fader Usia hafde gert.

35. Nema þad, hann tók eigi af-hæðernar. Þvi folked offrade enn þá, og brennde reykelse á hædum. Hann uppbyggde þad háa port á húse Drottins.

36. Hvad meira er ad segia um Jotham, og allt það hann gerde, siá, þad er skrifad í Juda konga Chronicu.

37. A þeim tíma hóf Drottinn upp ad senda í ríke Juda Rezin, kongiun af Syria, og Pekah son Remalia.

38. Og Jotham sofnade med sínum fedrum, og var jardadur hiá sínum fedrum í borg síns fødurs Davids, og Achas hans sonur vard kongur í hans stad.

## 16. Capitule.

1. A seytianda áre Pekah, sonar Remalia, vard kongur Achas, sonur Jothams, kongsins af Juda.

2. Achas var tuttugu ára gamall þá hann vard kongur, og hann rikte sextan ár í Jerusalem. Og hann gerde eigi þad sem Drottne hans Gude líkade, so sem hans fader David.

3. Þvíad hann geck á vegum Israels konga. Þar til med let hann sinn son fara í gegnum elldenn, epter heidingiauna svívirdingum, hvoria Drottinn hafde útrekid fyrer Israels børnum.

4. Og hann færde fórner og brennde reykelse á hædum og hálsum, og under hvøriu blomgudu tre.

5. Í þann tíma fóru þeir Rezin, kongur af Syria, og Pekah, sonur Remaliæ, kongur af Israel, upp, ad beriast á Jerusalem, og þeir settust um Achas, enn þeir gátu eigi unned hann.

6. A þeim sama tíma vann Rezin, kongur af Syria, Eloth aptur under Syriam, enn rak á burt Gydinga af Eloth, enn þeir Syri komu og biuggu þar allt til þessa dags.

7. Achas sende bod til Tiglath Pilleser, kongsins af Assyria, og let seigia honum: eg em þinn þenare, og þinn sønur, kome upp hingad, og hiálpe mer af hende þeirra, Syrlands kongs og Israels kongs, hverer upp hafa reist sig á móte mer.

8. Og Achas tók það silfur og gull sem fannst í húse Drottins, og í fiárhyrdslum kongsins húss, og sende þetta kongenum af Assyria til einnrar skeinkingar.

9. Og kongurenn af Assyria hlydde honum, og fór upp til Damascum, og vann hana, og flutte hana á burt til Kir, og sló Rezin íhel.

10. Enn Achas kongur fór imót Tiglath Pilleser, Kongenum af Assyria, til Damascum. Og sem hann sá eitt alltare, sem var í Damasco, þá sende kongurinn Achas mind þess sama alltaris, og hvernenn það var gert, til Uria kennemanns.

11. Og Uria prestur byggde eitt alltare, og gerde það epter þvi sem Achas kongur sende honum frá Damasco, þar til ad kongurinn Achas kom fra Damasco.

12. Enn sem kongurenn kom frá Damasco, og sá alltared, þá færde hann fórner þar yfer.

13. Og upptendrade þar á sínar brennefórner, og matoffur, og hellte þar yfer sínu drickiaroffre, og let støckva þackar-offursinns blóde af þvi sem hann offrade á alltared.

14. Enn koparalltared, það sem stód fyrer Drottne, tók hann á burt, so það skyllde eigi standa á millum alltaresins og Drottins húss, hell-

dur sette hann þad vid hørned á alltarenu til nordurs.
15. Og kongurinn Achas baud Uria kennemanne, og sagde: Þú skallt uppkveikia brenneoffur á þvi stóra alltare um morgna, og matoffur um kvølldenn, og kongsins brenneoffur, og hans matoffur, og alls folksinns brenneoffur, í landenu, med þeirra matoffre og drickiaroffre, og þú skallt støckva øllu brenneoffursins blóde, og allra annara fórna blóde þar uppá. Enn eg vil hugsa, hvad eg vil gera af þvi koparalltare.
16. Uria kennemadur gerde allt þad sem kongurinn Achas baud hønum.
17. Og kongurinn Achas braut sídurnar af stólunum, og tók katlana þar ofann af, og hann tók hafid af þeim kopar uxum, sem þar voru under, og sette nidur á steingólfed.
18. So og þær sabbats tiekiurnar, sem þeir høfdu byggt í húsenu, og hann snere kongsins húss gøng um, til Drottins húss, kongenum af Assyria til vilia.
19. Enn hvad meira er ad seigia um Achas, hvad hann gerde, siá, þad er skrifad í Juda konga Chronicu.
20. Og Achas sofnade med sínum fedrum, og var jardadur í hiá sínum fedrum, í borg Davids. Enn Ezechias hans sonur vard kongur í hans stad.

## 17. Capitule.

1. Á þvi tolfta áre Achas Juda kongs vard Hosea, son Ela, kongur yfer Israel, í Samaria, í níu ár.
2. Og hann gerde þad sem Drottne illa líkade, enn þó eigi so sem Israels kongar, þeir sem fyrer hann voru.
3. Enn Salmanasser, kongur af Assyria, fór upp í mót hønum, og Hosea vard hønum undergefenn, so hann gaf hønum gáfur.
4. Enn sem Assyria kongur feck ad vita, ad Hosea gerde sáttmála, og hann hafde sendt bod til So, kongsins af Egyptalande, og færde eigi kongenum af Assyria skeinkingar árlega, þá setteſt kongurinn af Assyria um hann, og slagde hann í fángelse.
5. Sídan fór Assyria kongur um allt land, og til Samariam, og sat um hana í þriu ár.
6. Enn á þvi níunda áre Hosea vann kongurenn af Assyria Samariam, og flutte Israel í burt í Assyriam, og sette þá í Halah og Habor hiá þvi vatne Gosan, og í borger Medorum.
7. Þviad á þeim tíma sem Israels børn syndgaduſt mót Drottne þeirra Gude, hver ad fært hafde þá af Egyptalande, af kongs Pharaonis hende, og þeir óttuduſt annarlega Gude,
8. Og geingu epter heidingianna sídum, hveria Drottinn hafde útreked fyrer Israels børnum, og so sem Israels kongar gerdu:
9. Og Israels børn fegrudu sínar saker á móte Drottne sínum Gude, þær þó sem eigi voru gódar, sem voru þessar, ad þeir byggdu ser hæder í øllum borgum, bæde á kaſtølum, og í sterkum stødum:
10. Og þeir uppreistu stólpa og lunda á øllum háum hædum, og under øllum blómgudum triám:
11. Og þeir brenndu þar reykelse á øllum hædum, eins og heidingiar, hvøria Drottinn hafde útreked fyrer þeim:
12. Og gerdu illa hlute med hverium þeir styggdu Drottinn, og þionndu skúrgodum, um hvad ad Drottinn hafde sagt til þeirra: eigi skulud þer gera þvílíkt:

13. Og þá Drottinn vitnade í Israel og í Juda, fyrer alla spámenn og siáendur, og let tilseigia þeim: snúed frá ydrum vondum vegum, og halldeð mín bodord og rettinde, epter því løgmále sem eg baud ydrum fedrum, og so sem eg sende til ydar, fyrer spámennena mína þenara:

14. Þá hlyddu þeir eigi, helldur hardsvíruduſt, eins og þeirra forfedur, sem eigi trúdu a Drottinn þeirra Gud:

15. Her med fyrerlitu þeir hans bodord, og hans sáttmála, sem hann giørde vid þeirra forfedur, og hans vitnisburd, sem han giørde á medal þeirra. Og geingu í sínum hegoma, og voru fávitrer líka sem heidingiar, þeir sem ad binggu í kringum þá, um hveria ad Drottinn hafde boded þeim, ad þeir skylldu eige giøra sem þeir:

16. Enn þeir yfergáfu øll bodord Drottins þeirra Guds, og giørdu ser tvo steypta kálfa, og lunda, og tilbádu allann himensins her, og þionudu Baal:

17. Og letu sína syni og dætur ganga í gegnum elldenn, og fóru med spáfarer og fiølkinge, og gáfu sig uttil ad gera allt þad sem Drottne illa líkade, honum til styggdar:

18. Þá vard Drottinn miøg reidur vid Israel, og kastade þeim fra sínne ásionu, so þar var eingenn epter, utann alleina kinþáttur Juda.

19. (Þar ad auk helt og Juda ecke helldur Drottins þeirra Guds Bodord, og geck epter Israels sidum, þeim sem þeir giørdu).

20. Og því burt kastade Drottinn øllu Israels sæde, og þreyngde þeim, og gaf þa í ræningia hendur, þar til hann kastade þeim frá sínu andlite.

21. Því Israel var slitenn frá Davids húse, og þeir settu Jerobo-am, son Nebat, til kongs. Hann snere Israel aptur á bak fra Drottne, og kom þeim miøg þunglega til ad syndgast.

22. So geingu Israels børn í øllum Jeroboams syndum, sem hann hafde uppbyriad, og ei letu þeir þar af.

23. Fyrr enn Drottinn kastade Israel fra sínu andlite, sem hann hafde sagt fyrer alla sína þenara, spámennena. So var Israels lydur burt fluttur í Assyriam, ur sínu lande, allt til þessa dags.

24. Og kongurenn af Assyria let koma af Babel, af Chuta, af Ava, af Hemath, og af Sepharvaim, og let þa búa í borgum Samariæ, í stadenn Israels barna. Og þeir eignuduſt Samariam, og binggu í hennar stodum.

25. Enn sem þeir tóku til þar ad búa, og óttuduſt ecke Drottinn, þa sende Drottinn Leon á medal þeirra, þau dráþu þá.

26. Og þeir letu seigia kongenum af Assyria: þeir heidingiar sem þú hingad færder, til ad bua í Samaria borgum, þeir vita ecke af Guds vísu í landenu, því hefur hann sendt Leon á medal þeirra, og siá, þau drepa þá, fyrer því, ad þeir vita eigi vísu Guds í landenu.

27. Þá baud kongurenn af Assyria, og sagde: sended einn af þeim kennemønnum þangad, sem þadan voru burtuslutter, og fare hann og búe þar, og kenne hann þeim þa Guds vísu í landenu.

28. Þá kom einn af prestunum þangad, hver ed burt var fluttur af Samaria, og setteſt nidur í BethEl, og hann kennde þeim hvernenn ad þeir skylldu óttaſt Drottinn.

29. Enn serhver þiod gerde finn Gud, og settu þá í þau husenn á Hædunum, sem þeir Samaritar gerdu, serhvert folk í sinum stødum, þar þeir bigguu.

30. Þeir af Babylon gerdu Suchoth Benoth; þeir af Chut giørdu Nergel, þeir af Hemath giørdu Asima.

31. Þeir af Ava giørdu Nibehas og Tharthach; þeir af Sepharvaim brenndu sína syne fyrer Adramelech og Anamelech skórgodum þeirra Sepharvaim.

32. Og søkum þess þeir hræddust og eirnenn Drottinn, þa settu þeir ser presta á hæedernar, af þeim minnstu háttar á medal sín, og settu þá í húsenn á Hædønum.

33. Med hessum hætte óttudust þeir Drottinn, og þionudu og so afgudum, epter sidveniu hvers folks sem þeir voru komner frá.

34. Og allt til þessa dags, þá breyta þeir eptir gømlum sid, so ad þeir hverke, óttast Drottinn, og ei giøra þeir sína vísu og rettinde epter løgmálenu og bodordønum, hvert Drottinn baud Jacobs børnum, hverium hann gaf Israels nafn.

35. Og giørde einn sáttmála vid þá, og baud þeim og sagde: ottest eigi adra Gude, og tilbided þa eigi, og þióned þeim eigi, og færed þeim eigi fórner.

36. Helldur Drottne, sem færde ydur af Egyptalande, med mikelle magt og utrettum armlegg, óttest hann, ák-lled hann, og færed hønum fórner.

37. Og halldeð þa sidu, þau rettinde, løgmál og bodord sem hann let uppskrifa ydur, ad þer alltíd giøred þar epter, og óttest eigi adra Gude.

38. Gleymed eigi þeim sáttmála sem hann gerde vid ydur, ad þer óttest eigi adra Gude.

39. Helldur óttest Drottinn ydar Gud, hann mun frelsa ydur fra øllum ydrum óvinum.

40. Enn þeir hlyddu þvi eigi, helldur giørdu þeir epter sínum gømlum sidvana.

41. So óttudust þesser heidingiar Drottinn, og þionudu líka sínum afgudum, so giørdu og þeirra børn, og þeirra barnabørn, líka sem þeirra fedur giørdu, allt til þessa dags.

18. Capitule.

1. A þridia ere Hosea, sonar Ela, Israels kongs, var Ezechias kongur, sonur Achas Juda kongs.

2. Og hann var fimm og tuttugu ára gamall þá hann vard kongur, og hann ríkte níu og tuttugu ár í Jerusalem, hans moder het Abia, dotter Zacharie.

3. Og giørde hvad Drottne vel þocknadest, so sem hans fader David.

4. Hann nidursló hædernar, og sundurbraut þau skúrgod, og upphió lundana, og sundursló þann koparorm sem Moses hafde gera láted, þviad Israels børn høfdu brennt fyrer hønum reykelse, allt til þessa dags, og menn kølludu hann Nehusthan.

5. Han sette trú til Drottins Israels Guds, so ad epter hann var eigi hans líke, á medal allra konga Judæ, og eigi helldur hafde vered fyrer hann.

6. Hann hellt ser ad Drottne, og veik eigi aptur á bak fra hønum, og hellt hans bodord, sem Drottinn hafde boded Mose.

7. Og Drottinn var med hønum, og hann høndlade forsiálega, hvar hann utfór. So og fell hann frá kongenum af Assyria, og var hønum eigi undergefenn.

8. Hann sló og Philisteos allt til Gasa, og þeirra landamerke, fra slotunum, og allt til þeirra føstu stadanna.

9. A þvi fiorda áre Ezechie, Juda kongs, þad var á þvi siøunda áre Hosea, sonar Ela, Israels kongs, þa fór Salmanasser, kongur af Assyria, upp í móte Samaria, og settest um hana.

10. Og vann hana, ad þremur árum lidnum, á þvi siøtta áre Ezechie, þad er á þvi níunda áre Hosee Israels kongs, þa vard Samaria unnenn.

11. Og Assyria kongur flutte Israel burt, til Assyriam, og sette þá í Halah og Habor, hiá vatnenu Gosan og í borger þeirra Medorum.

12. Fyrer þvi, ad þeir høfdu eigi hlydt Drottins þeirra Guds rødu, og høfdu yfertroded hans sáttmála, og allt þad sem Moses Guds þenare hafde boded, þar af høfdu þeir engu hlydt ne gert.

13. A þvi fiortanda áre Ezechie kongs fór upp Senacherib, kongur af Assyria, mót øllum sterkum borgum í Juda, og vann þær.

14. Þá sende Ezechias, kongur Juda, til kongsins af Assyria, til Lachis, og let seigia hønum: eg hefe misgert, vík frá mer, og vil bera hvad þu leggur uppá mig. Þá lagde kongurenn af Assyria uppá Ezechiam Juda kong þriu hundrud centener silfurs, og þriátíu centener gulls.

15. Og Ezechias gaf allt þad silfur sem fannst í húse Drottins, og þad se sem var í kongsins fehirdslum.

16. A sama tíma braut Ezechias hurdena á húse Drottins, og þær plotur sem hann hafde siálfur láted yfer klæda med, og gaf þad kongenum af Assyria.

17. Enn kongurenn af Assyria sende Tharthan, og þann ypparsta herbergis Svein, og Rabsakes frá Lachis, til kongs Ezechiam, med mikellre magt, til Jerusalem, og þeir fóru upp þangad. Enn sem þeir komu, tóku þeir ser stødu hiá vatnsgrøfønum, nær þvi effsta fiska dyke, sem liggur hiá veigenum, upp ad klædaþvottarans akre.

18. Og kølludu á kongenn. Þá kom ut til þeirra Eliakim, sonur Hilkiæ, hofmeistarinn, og Sebna, skrifarenn, og Joah, sonur Asaphs, cantzelerenn.

19. Þá sagde sa ædste skeinkiare til þeirra: kiære, seiged Ezechia konge, so seiger sá mikle kongur, kongur af Assyria: hvad er þad fyrer traust er þu treyster á?

20. Meinar þú, ad þar se enn nú rád edur magt ad strída? Uppá hvad treyster þú, ad þú ert fallenn frá mer?

21. Siá, setur þú þína von í brotnum reyrsprota af Egyptalande? Vid hvern, ef nockur stydur sig, þá geingur hann í hanns hønd, og stíngur hana í gegnum, eins er Pharao Egypta kongur øllum þeim sem hønum treysta.

22. Enn viled þer og seigia til mín: ver høfum traust i Drottne vorum Gude; er hann eigi sá, hvers hæder og alltare Ezechias hefir nidurbroted, og sagt til Juda og Jerusalem: fyrer þessu altare, sem er í Jerusalem: skulud þer tilbidia?

23. Lofa þú mínum herra konngenum af Assyria, eg vil fá þer tvø þusund hesta, ef þú kannt ad gefa riddara til þeirra.

24. Hvernenn máttu þá standa móte einum minnsta herra, sem mínum herra er undergefenn? Og þú

treyster uppá þá Egyptsku, vegna þeirra vagna, og riddara lids.

25. Edá meinar þú, ad eg se komenn hingad án Drottins ad fordiarfa þessa stade? Drottinn hefir boded mer: far upp til þess lands, og eydelegg þad.

26. Þá sagde Eliakim, sonur Hilkiæ, og Sebna, og Joah, til þess ypparsta skeinkiara: tala þú vid þína þenara á syrlendsku, þvíad ver skilium þad, enn tala eigi vid osz Judiskt mál fyrer eyrum folksins sem er upp á múrnum.

27. Enn sá ypparste skeinkiare sagde til þeirra: hefir minn herra nockud sendt mig til þíns herra, eda til þín, ad eg skyllde tala soddann ord? Helldur til þeirra manna sem sitia uppá múrnum, ad þeir ete med ydur þeirra eigenn mykiu, og drecke þeirra eiged þvag.

28. So stód sa ypparste skeinkiare, og hrópade med hárre roddu á Judisku, og sagde: heyred þess megtuga kongs ord, kongsins af Assyria.

29. So seiger kongurenn: láted eigi kong Ezechia svíkia ydur, þvíad eigi hefir hann mátt til ad frelsa ydur frá minne hende.

30. Og láted eigi helldur Ezechiam gefa ydur oftraust á Drottne, þar hann seiger: Drottinn mun frelsa osz, og þesse borg mun eigi gefast í Assyriæ kongs hendur.

31. Hlyded eigi Ezechia. Þvi so seiger kongurenn af Assyria: medtaked mína nád, og komed út til mín, so skal hver madur neyta af sínu víntre og fikiutre, og drecka af sínum brunne.

32. Þar til eg kem ad færa ydur burt í eitt land, hvert ad líka er sem ydart land, í hveriu ad er korn, vín, braud, víngardar, olíu tre, vidsmiør og hunáng, so skulud þer hallda ydru life, og eigi deya. Hlyded eigi Ezechia, þvi hann svíkur ydur, í þvi, ad hann seiger: Drottinn mun frelsa osz.

33. Hafa nockud heidingianna Guder frelsad hver sitt land, af Assyria kongs hende?

34. Hvar eru Guder þeirra í Hemath, og Arphad? Hvar eru Guder þeirra í Sepharvaim, Hena og Jva? Hafa þeir og frelsad Samariam af minne hende?

35. Hvar er sá Gud, á medal allra landa Guda, sem frelsad hefir þeirra land af minne hende? So ad Drottinn skyllde frelsa Jerusalem af minne hende?

36. Og fólked þagde, og svarade hønum engu, þvíad kongurenn hafde boded og sagt: svared hønum engu.

37. Þá kom Eliakim, sonur Hilkia, hófmeistarenn, og Sebna skrifare, og Joah, sonur Assaphs, cantzlere, til Ezechiam, med sundur rifnum klædum, og søgdu hønum ord þess ypparsta skeinkiara.

## 19. Capitule.

1. Enn sem Ezechias kongur heyrde þetta, þá reyf hann sín klæde, og lagde á sig einn seck, og geck í hús Drottins.

2. Og hann sende Eliakim hofmeistara, og Sebna ritara, med þeim ellstu kennemønnum, klædda seckium, til spámannsins Esaiam, sonar Amos.

3. Og þeir søgdu til hans: so seiger Ezechias; þetta er dagur neydarennar, illyrdanna og lastsins. Bornenn eru komenn ad fædingu, enn þar er eingenn máttur til ad fæda.

4. Ef ad ske mætte, Drottinn þinn Gud villde heyra øll ord þess

yppársta Skeinkiara, hvern hans herra, kongurenn af Assyria, sende hingad, ad tala hádúglega um þann lifanda Gud, og hallmæla med þeim ordum sem Drottinn þinn Gud hefir heyrt, so upphef þína bæn, fyrer þá sem epter eru ordner, sem enn eru til.

5. Enn sem Ezechiæ kongs Þenarar komu til Esaiam.

6. Þá sagde Esaias til þeirra: seiged ydrum herra so; só seiger Drottinn: eige skalltu hrædast þau ord sem þú heyrder, med hverium kongsins sveinar af Assyria løstudu mig.

7. Siá, eg vil gefa hønum einn anda, hann skal heyra eitt rikte, og fara heim aptur í sitt land, og eg vil fella hann med sverde í sínu lande.

8. Enn þá sá ypparste skeinkiare kom aptur, fann hann, ad kongurenn af Assyria bardest á mot Libna, þvi hann heyrde, ad hann var farenn af Lachis.

9. Og þa hann heyrde um Thirhaka bláländs Kong, siá, hann er útfarenn ad beriast vid þig, þa snere hann aptur. Og hann sende bod til Ezechiam, og let seigia hønum.

10. Seiged so Ezechia, Juda konge: lát þú eigi þinn Gud svíkia þig, á hvørn þú treyster, og seiger: Jerusalem skal eigi gefast i kongsins hønd af Assyria.

11. Siá, þú hefur heyrt hvad Assyria kongar hafa giørt øllum løndum, og foreydt þeim, skyllder þú þa einn frelsast?

12. Hafa nockud heidingianna Guder frelsad þá sem míner forfedur fordiørfudu, Gosan, Haran, Rezeph, og børn Eden, sem voru í Thelazar?

13. Hvar er kongurenn af Hemath, kongurenn af Arphad, og kongurenn af stadnum Sepharvaim, Hena og Jva?

14. Enn sem Ezechias hafde medteked brefenn af sendebodunum, og leséd þau, þá geck hann upp til Drottins húss, og útbreidde þaú fyrer Drottne.

15. Og hann bad fyrer Drottne, og sagde: Drottinn Gud Israels, hver ad situr yfer Cherubim, þú ert Gud alleina á medal allra kongaríkia á jørdunne, þú gerder himen og jørd!

16. Drottinn! hneig þú þín eyru, og heyr; lát upp þín augu, og siá; og heyr Senacheribs ord sem hann sende hingad, ad hæda þann lifanda Gud.

17. Enn satt er þad Drottinn! Assyria kongar hafa í eyde lagt heidingiana, og þeirra lønd.

18. Hafa og kastad þeirra Gudum í elld, þviad þad voru eigi Guder, helldur handaverk manna, stockar og steinar, og þvi hafa þeir fyrerkomed þeim.

19. Enn nu Drottinn vor Gud! hiálpa þú oss fra hans hende, so ad øll kongaríke á jørdunne meige þeckia, ad þú Drottinn er Gud alleina!

20. Þá sende Esaias, sonur Amoz, til Ezechiam, og let hønum seigia: so seiger Drottinn Israels Gud, eg hefe heyrt hvers þú hefir beded af mer, um Senacherib Assyria kong.

21. Þetta er þad sem Drottinn hefir taled imóte hønum: jungfrúen Zions dotter forsmáer þig, og hæder ad þer, dotter Jerusalem hrister sitt høfud epter þer.

22. Hvern hefir þú spottad og lastad? Yfer hvern hefir þú upphafed þína rødd? Þú hófst augu í gegu þeim heilaga í Israel.

23. Þú hædder Drottinn med

hínum sendemønnum, og sagder, eg em uppfarenn á hæder fiallanna, fyrer margfiølda minna vagna, uppá sídu Libanon, eg hefe høggved hans háfu cedrus tre og útvalenn furu tre, og em komenn til Carmels f[illegible] ytstu herbergia.

24. Eg hefe uppgrafed og útdrucked þau annarlegu vøtn, og eg hefe upp þurkad øll støduvøtn med sølum minna fóta.

25. En hefir þú eigi heyrt, ad fyrer laungu hefe eg hvilíkt gert, og af úpphafenu hefe eg þetta reidubúed? Enn nu hefe eg láted koma, ad þeir føstu stader skyldu falla, og verda ad einnre eyde grióthrúgu.

26. Og þeir sem búa þar, skylldu verda máttlauser og hrædder, og skammast sín, og verda sem gras á akre, og sem grænar jurter til heys á þekiunum, hvert ad visnar ádur enn þad er fullvaxed.

27. Eg veit þitt heimele, þinn útgang og ingang, og ad þú æder imóte mer.

28. Enn fyrst ad þú æder so imóte mer, og þinn ofmetnadur er komenn upp fyrer mín eyru, þá vil eg leggia einn hring í þínar naser, og eitt beisl í þinn munn, og eg vil leida þig þann sama veg aptur, sem þú komst hingad.

29. Og þetta skal vera þer til eins merkis: et þú á þessu áre, þad sem nidurtroded er. Enn á ødru áre, þad sem siálfkrafa vex. Enn á þridia áre, sáed og haustyrked, planted og víngarda, og neyted þeirra ávaxta.

30. Enn dotter Judæ, sem frelst er og epter ordenn, mun her epter fá rætur under sig, og bera ávøxt yfer ser.

31. Þvíad þeir sem epter eru ordner skulu útganga af Jerusalem, þeir af Zions fialle sem eru frelsader. Vandlæte Drottinns Zebaoth skal gera þetta.

32. Og þvi seiger Drottinn so um Assyria kong: eige skal hann koma í þessa borg, og engre ør skióta þar inn, og eingenn skiølldur skal koma þar fyrer, og engvann strídsgard skal hann upphlada þar um kring.

33. Helldur skal hann fara þann veg aptur sem hann kom, og ei skal hann koma í þennann stad; Drottinn seiger þad.

34. Og eg vil hlífa þessare borg, ad eg hiálpe henne fyrer mína skulld, og søkum míns þenara Davids.

35. Enn á þeirre sømu nótt fór eingell Drottinns út, og sló íhel hundrad þusúnd, og fimm og áttatíu þusund manns, í herbúdum þeirra Assyríorum. Enn sem þeir stodu árla upp um morgunenn, siá, þá lá þar allt fullt med daudra manna líkame.

36. So tók Senacherib, Assyria kongur, sig upp, fór í burt, og snere aptur, og var í Ninive.

37. Enn sem han tilbad í húse Nisroch síns Guds þá slóu hans syner Adra Melech og Sar Ezer hann íhel med sverde. Og þeir flúdu í land Ararat. Enn hans sonur Asserhaddon vard kongur í hans stad.

## 20. Capitule.

1. A þeim tíma vard Ezechias daudsiúkur. Og Esaias, spámadur, sonur Amos kom til hans, og sagde hønum: so seiger Drottinn, ger skipan þins húss, því þú skallt deya, og eigi lifa.

2. Enn hann snere sínne ásiónu til veggiar, bad til Drottins, og sagde:

3. O Drottinn! minnstu þé, ad

eg hefe geinged trúlega fyrer þer, og med rettskickudu hiarta, og eg hefe gert þad sem þer likar. Og Ezechias gret miøg.

4. Enn ádur enn Esaias var komenn í midionn stadenn, þá kom Drottins ord til hans, og sagde:

5. Snu þú aptur, og seig til Ezechia, hofdingia míns fólks: so seiger Drottinn, Gud þíns fødurs Davids, eg hefe heyrt þína bæn, og sed þin tár, siá, eg vil gera þig heilbrigdann, á þridia deige skalltu uppganga til húss Drottins.

6. Og eg vil leingia lífdaga þína um fimmtan ár, og frelsa þig og þessa borg frá þeim Assyria konge, og eg vil hlífa þessare borg, saker mín, og saker míns þenara Davids.

7. Og Esaias sagde: sæked hingad klasa af fikium. Og sem þeir komu med hann, þá løgdu þeir þad yfer meined, og hann vard heilbrigdur.

8. Ezechias sagde til Esaiam, hvert er þad teikn ad Drottinn vill gera mig heilbrigdann, og ad eg skal ganga til Drottins húss á hinum þridia deige?

9. Esaias svarade: Þú munt hafa þetta teikn af Drottni, ad Drottinn skal gera þad sem hann hefir sagt. Skal skuggenn ganga framm um tíu línur, eda ganga aptur um tíu línur?

10. Ezechias sagde, þad er audvellt ad láta skuggann ganga um tíu línur nidur, þad vil eg eigi, helldur ad hann gange tíu línur aptur á bak.

11. Þá kallade Esaias spámadur til Drottins. Og skuggenn geck tíu línur til baka á Achabs sigurverke, sem hann var ádur frammgeingenn.

12. Á þeim tíma sende Brodath Baledan, sonur Baledan, kongurenn af Babylon, bref og skeinkingar til Ezechiam. Þviad hann hafde heyrt, ad Ezechias hafde vered siúkur.

13. Og Ezechias vard gladur med þeim, og synde allt sit gersema hús, silfur, gull, dyrlegar jurter, og þad besta oleum, og tyg húsed, og allt þad hann hafde í sínum fehyrdslum. Þar var eckert í hans húse, og eckert í hans øllu vellde, sem Ezechias synde þeim eigi.

14. Þá kom Esaias spámadur til Ezechia kongs, og sagde til hans, hvad hafa þesser menn sagt? Og hvadann eru þeir komner til þín? Ezechias sagde: þeir eru komner af fiarlægu lande til mín, frá Babylon.

15. Hann sagde: hvad hafa þeir sed í þínu húse? Ezechias svarade: þeir hafa sed allt þad sem í mínu húse er, og þar er eigi neitt í mínum fiársiódum sem eg synda þeim eige.

16. Þá sagde Esaias til Ezechiam: heyr þú ord Drottins!

17. Siá, sa tíme kemur, ad allt þetta skal burtflytiast til Babylon af þínu húse, og þad sem þíner forfedur hafa safnad, allt til þessa dags, og þar skal eigi epterláted verda, seiger Drottinn.

18. Þar med þau børn sem koma af þer, þau þú munt eiga, þau munu takast, ad vera herbergiasveinar í kongsins høllu af Babylon.

19. Þá sagde Ezechias til Esaiam: þad er gott sem Drottinn hefir talad. Og hann sagde enn framar: þar mun þó verda fridur og tryggd á mínum døgum.

20. Hvad meira er ad seigia af Ezechia, og um alla hans magt, og allt þad hann gerde, og um þad

fiskdíke, og bunustocka, hvar med hann veitte vatne inn í borgena, sjá, þad er skrifad í Juda kounga Chronicu.

21. Og Ezechias sofnade burt med sínum fedrum, enn Manasses, hans sonur, vard kongur í hans stad.

## 21. Capitule.

1. Manasses var tólf ára gamall þá hann tók kengdom, og ríkté fimm og fimmtíu ár í Jerusalem, hans moder het Hephziba.

2. Og hann gerde þad sem Drottne illa líkade, epter heidingianna svívirdingum, hveria ad Drottinn útrak fyrer Israels børnum.

3. Og hann fráfuere ser og uppbyggde þær hæder, sem Ezechias hans fader hafde nidurbroted, og uppreiste Baals alltare, og gerde blótskóga, so sem gert hafde Israels kongur Achab, og tilbad allsháttadann himens Her, og þiónade þeim.

4. Og hann reiste eitt alltare í húse Drottins, um hvert ad Drottinn sagde: eg vil setia mit nafn í Jerusalem.

5. Og hann byggde øllum himensins her alltare í bádum gørdønum upp vid hús Drottins.

6. Og hann let sinn son ganga í gegnum elldinn; hann gaf giætur ad fugla máke og teiknum, og hann hellt spásagnamenn og teiknaþydendur, og gerde soddan margt sem Drottne illa líkade, hvar med hann styggde hann.

7. Hann sette eitt blótskógar skúrgod, sem hann hafde gert, í þad hús, um hvert ad Drottinn hafde sagt til Davids, og til hans sonar Salomons: í þetta hús, og í Jerusalem, sem eg utvalde af øllum Israels ættum, vil eg setia mitt nafn æfenlega.

8. Og eige vil eg láta Israels fætur meir hræraſt afſlandenu þvi sem eg gaf þeirra forfedrum. Þó med þvi móte, ef þeir hallda og gera epter øllu þvi sem eg hefe boded þeim, og epter øllu þvi løgmále sem Moses minn þenare baud þeim.

9. Enn þeir hlyddu eigi, helldur villte Manasses þá, so þeir gerdu meire illskur enn þeir heidingiarner, hveria Drottinn hafde eydelagt fyrer Israelis børnum.

10. Þá talade Drottinn fyrer sína þenara spámennena, og sagde:

11. Søkum þess, ad Manasses kongur af Juda hefir gert sóddan svívirdingar, sem eru verre enn allar þær svívirdingar sem Amoritarner gerdu, sem ad voru fyrer hann, og hefir komed Juda til ad syndgast med sínum skurgodum.

12. Þar fyrer seiger Drottinn Israelis Gud so: siá, eg vil leida ólucku yfer Jerusalem og Juda, og hver þad heyrer, þad mun gella í bádum hans eyrum.

13. Og eg vil draga mælevad Samariæ yfer Jerusalem, og vigt Achabs húss, og eg vil afþurka Jerusalem, líka sem madur þurkar føt, madur þurkar, og hvelfer þeim.

14. Og eg vil í burt kasta þeim sem epter eru af minne erfd, og gefa þá í sinna óvina hendur, so þeir skulu verda øllum sínum óvinum ad ráne og sundurslítningu.

15. Søkum þess, ad þeir gerdu þad sem mer illa líkade, og hafa styggt mig, frá þeim deige, sem þeirra forfedur fóru af Egyptalande, og allt til þessa dags.

16. Og Manasses hellte út miøg miklu saklausu blóde, þar til Jerusalem var her og þar full, ad auk þeirra synda, med hverium hann kom Juda til ad syndgast, so þeir gerdu þad sem Drottne illa líkade.

17. Hvad meira er ad seigia um Manassen, og allt þad sem hann hefir gert, og hans synder sem hann framde, siá, þad er skrifad í Juda konga Chronicu.

18. Og Manasses sofnade í burt med sínum fedrum, og var jardadur í jurta garde síns hús, sem var í gardenum Usa. Og Amon, hans sonur, vard kongur í hans stad.

19. Amon hafde tvo vetur um tvítugt þá hann vard kongur, og hann ríkte tvö ár í Jerusalem; hans moder het Mesulemeth, Dotter Haruz, af Jatba.

20. Og hann gerde þad sem Drottne illa þocknadest, eins sem Manasses, hans fader, hafde gert.

21. Og hann fór allann veril sem hans fader hafde fared, og þionade þeim afgudum sem hans fader þionade, og bád til þeirra.

22. Og hann gleymde Drottne Gude sinna forfedra, og geck eigi á vegum Drottins.

23. Og hans þenarar gerdu samtök í móte Amon, og slóu kongenn ihel í hans húse.

24. Enn landsfólked drap þá alla sem þau samtök höfdu gert í móte kongenum Amon. Og folked í landenu gerde Josiam, hans son, til kongs í hans stad.

25. Hvad Amon meira gerde, siá, þad er skrifad í Juda konga Chronicu.

26. Og þeir jördudu hann í sinne gröf, í gardenum Usa, og Josias, hans sonur, vard kongur í hans stad

## 22. Capitule.

1. Josias var átta ára gamall þá hann tók kongdóm, og hann ríkte ellefu og tuttugu ár í Jerusalem; hans moder het Jedida, dotter Adaja, af Bazkath.

2. Og hann gerde þad sem Drottni vel þocknadist, og geck í öllum Davids síns födurs vegum, og veik hverke til hægre ne vinstre handar.

3. Enn á því átianda áre Josiæ kongs þá sende kongurenn Saphan, sonur Azalias, sonar Mesulam, sinn skrifara, burt í Drottins hús, og sagde:

4. Far upp til þess ædsta kennemanns Hilkia, so ad menn gefe þeim þad fe, sem inn er komed í húss Drottins, hverju þröskullds vardhallds mennerner hafa samansafnad af fólkenu,

5. Ad þeir sem tilskickader eru í húse Drottins gefe ersidis-mönnunum þad, Já, gefe ersidis-mönnonum þad, sem eru í húse Drottins, ad þeir endurbæte þad sem brosted er á húsinu,

6. Sem er timburmönnonum, og uppbyggingar mönnonum, og murmeistorum, og þeim sem ad kaupa skulu tre, og uthöggna steina, til ad bæta húsid med.

7. Þó skulu menn ei taka reikningskap af þeim, fyrer þá peninga sem þeim gefast í þeirra hendur, helldur skulu þeir höndla med þá uppa tru.

8. Og sá ædste kennemadur Hilkia, sagde til Saphan skrifara: eg hefe funded lögmálsbokina í húse Drottins. Og Hilkia feck Saphan bókina, ad hann skyllde lesa í henne.

9. Og Saphan skrifare bar hana til kongsins, og talade vid hann aptur, og sagde: Þíner þenarar samansöfnudu þeim peningum, sem fundust í húsinu, og þeir sem eru tilsetter í húse Drottins, gáfu þá ersidis mönnunum.

10. Og Saphan skrifare talade til kongsins, og sagde: Hilkia

kennemadur feck mer eina bók. Og Saphan las hana fyrer kongenum.

11. Enn sem kóngurenn heyrde ord løgmálsbókarennar þá reif hann sin klæde.

12. Og kongurenn baud Hilkia kennemanne, og Ahicham, syne Saphan, og Achbor, syne Michaja, og Saphan skrifara, og Asaia, kongsins þenara, og sagde:

13. Fared og adspyred Drottinn fyrer mig, og fyrer fólked, og fyrer allann Juda, um ord þessarar bókar sem fundenn er. Þviad þar er ein mikil Drottins reide upptendrud yfer oss, sökum þess, ad vorer forfedur hafa eigi hlydt ordum þessarar bókar, so ad þeir gerdu allt þad sem skrifad er í henne.

14. Þá geck Hilkia kennemadur, Aikam, Achbor, Saphan og Asaia, til Huldar spákonu, sem var húsfrú Sallum, sonar Thikua, sonar Harham, sem klædinn geymde, og hún bió í Jerusalem, í þeim ødrum parte, og þeir tøludu vid hana.

15. Hún sagde til þeirra: so seiger Drottinn Gud Israels: seiged þeim manne sem ydur sende til mín,

16. So seiger Drottinn: siá, eg vil leida ólucku yfer þennann stad, og hans innbyggiara, øll þau løgmálsins ord sem Juda kongur hefir láted lesa.

17. Fyrer þvi, ad þeir hafa yfergefed mig, enn gefed reykelse fyrer annarlegum Gudum, ad þeir reittu mig til reide med øllum þeirra handaverkum, þar fyrer skal mín reide upptendrast imóte þessum stad, og eigi utslockna.

18. Enn þer skúlud so seigia Judæ konge, sem ad sende ydur hingad, ad ganga til fretta vid Drottinn, so seiger Drottinn Gud Israels.

19. Fyrer þvi, ad þitt hiarta klocknade, vid þau ord sem þú heyrder, og þú audmykter þig fyrer Drottne, þá þú heyrder, hvad eg hafde talad á mót þessum stad, og hans innbyggiurum, ad þeir skylldu verda ein eydelegging og bølvan, og þú reyfst þín klæde sundur, og gretst fyrer mer, so hefi eg og heyrt þad, seiger Drottinn.

20 Þvi vil eg safna þer til þinna fedra, ad þú skallt safnast til þinnar grafar med fride, so ad þín augu skulu eigi siá alla þá ólucku, sem eg vil leida yfer þennann stad. Og þeir søgdu þetta kongenum aptur.

## 23. Capitule.

1. Og kongurenn sende út, og aller øldungar í Juda og Jerusalem søfnudu ser til hans.

2. Og kongurenn geck upp í hús Drottins, og aller menn af Juda, og aller innbyggiarar í Jerusalem med hønum, kennemennerner og spámennerner, og allt fólked, bæde smáer og storer. Og þar voru lesenn fyrer þeirra eyrum øll ord sáttmáls bókarennar, sem fundenn var í húse Drottins.

3. Og kongurenn stód hiá einum stólpa, og gerde eitt sáttmál fyrer Drottne, ad þeir skylldu ganga epter Drottne, og hallda hans bodord, hans vitnisbúrde og rett, af øllu hiarta, og af allre sálu, ad þeir uppreistu þesse sáttmáls ord, sem skrifud stodu í þessare bók, og allt fólked geck under þennann sáttmála.

4. Og kongurenn baud Hilkia ædsta kennemanne, og þeim prestonum þeirrar annarar skipanar, og vardhalldsmønnonum hiá prestelldenum, ad þeir skylldu taka af Drottins mustere øll þau verkfære sem ad gerd voru til Baals, og til lundanna, og til alls himensins hers, og hann brennde þau upp

fyrer útann Jerúsalem, í dalnum Kidron, enn aſkann af þeim var borenn til BethEl.

5. Og hann tók í búrt alla þá Camarim, ſem Juda kongar høfdu ſkickad ad brenna reykelſe, á hædum, í borgum Judæ, og kringum Jerúsalem, og þá ſem brenndu reykelſe fyrer Baal, og fyrer ſólu og tungle, planetum og øllum himenſins her.

6. Og hann let færa lundenn af Drottins húſe, utann fyrer Jerúsalem, í læk Kidron, og uppbrennde hann í Kidrons læk, og gerde hann ad dupte, og kaſtade øſkunne uppá almúga fólkſins grafer.

7. Og hann braut ofann þau hóru hús, ſem ſtódu upp hiá húſe Drottins, í hverium ad konurnar váfa hús til lundanna.

8. Og hann let koma alla kennemenn af Juda ſtødum, og ſaurgade þær hæder, þar preſtarner brenndu reykelſe á, frá Geba og allt til Ber Seba. Og hann nidurbraut þær hæder, í borgarhlidønum, ſem voru í portdyrum Joſuæ ſtadar fovetans, ſem voru til vinſtre handar, þá geinged var í ſtadarins port.

9. Þó høfdu eigi enn þeir hædapreſtar offrad yfir Drottins alltare í Jerúsalem, enn þeir átu óſyrd braud á medal ſinna brædra.

10. Hann ſaurgade og Thopheth í Hinnoms Barna dal, ad eingenn lete ſinn ſon eda ſína dotter fara í gegnum elldenn, fyrer Molech.

11. Hann tók og þá heſta í burt, ſem Juda kongar høfdu ſatt ſólunne í inngánge Drottins húſs, hiá herberge Nethan Melech herbergia ſveins, ſem var i Parvarim, og hann úppbrennde ſólarennar vagna med ellde.

12. Og kongurenn nidurbraut ølturenn, ſem ſtódu uppá þakenu á Achabs ſal, ſem Juda kongar høfdu gert, og þau alltøre, ſem Manaſſes hafde gert, í þeim tveimur Drottins húſs gørdum, og hann geck þar frá, og kaſtade þeirra dúpte í lækenn Kidron.

13. Kongurenn ſaurgade og þær hæder ſem voru útann fyrer Jerúsalem, til hægre handar, hiá ſiallenu Mashith, ſem Salomon Iſraels kongur hafde byggt Aſthoreth, ſvívirdingu þeirra í Sidon, og Chamos, ſvívirdingu Moabs, og Milchom, ſvívirdingu Amons barna.

14. Og hann ſundurſló líkneſkenn, og eydelagde, lundana, og fyllte þeirra ſtade med manna beinum.

15. So og þad alltare í BethEl, og þá hæd ſem Jeroboam, ſonur Nebats gerde, ſem kom Iſrael til ad ſyndga, þad ſama alltare braut hann nidur, og þá hæd, og uppbrennde þær hæder, og gerde þær ad dupte; hann brennde og lundenn.

16. Og Joſias ſnere ſer, og ſá þær (daudra manna) grafer, ſem voru á ſiøllønum, og ſende þangad, og let taka beinenn af grøfunum, og brenna þau yfer alltarenu, og ſaurgade þad, epter Drottins orde, ſo ſem Guds madur hafde þad úthrópad ádur, ſem þad úthrópade.

17. Og hann ſagde: hvad er þad fyrer legſteinn ſem eg ſe? Og fólked í ſtadnum ſagde til hans: þetta er þeſs Guds manns grøf, ſem kom af Juda, og þetta úthrópade, þad ſem þú hefir gert ímote þeſſu alltare í Beth El.

18. Og hann ſagde: láted hann liggia, hrære eingenn hans bein. Svo urdu hans bein fríud, med ſpámannſins beinum, ſem kom af Samaria.

19. Hann tók og í burtu øll hús hædanna, í borgum Samarie, sem ad Israels kongar høfdu gert til styggdar, og breitte vid þau í allann máta, so sem hann gerde í Beth-El.

20. Og hann fórnfærde alla þá hædanna presta sem þar voru, á aulltur
ønum, og brende so manna bein þar uppá, og kom til Jerusalem aptur.

21. Og kongurenn baud fólkenu, og sagde: halldeð páska Drottni ydrum Gude, so sem þad er skrifad í þessare sáttmáls bók.

22. Þvi þar voru enger soddan páskar hallduer sem þesser, frá døgum domaranna, sem ad dæmt høfdu Israel, og um alla tíd Israels og Juda konga.

23. Enn á þvi átianda áre Josia kongs voru þesser páskar halldner Drottne í Jerusalem.

24. Og Josia afmáde alla þá ed fóru med spáfarer, teikna utleggiara, bílæte, og skurgod, og allar svívirdingar sem sáust í Juda lande og Jerusalem, til þess, ad hann mætte uppretta løgmálsins ord, sem ad skrifud stódu í bókinne, hveria Hilkia kennemadur fann í Drottins húse.

25. Þar var eingenn kongur fyrer hann sem hans líke være, hver ad so út af øllu hiarta, og af allre sálu, og af øllum mætte snere ser til Drottins, epter øllu Moses løgmále, og ei kom nockur epter hann sem hans líke være.

26. Þó snere Drottenn ser eigi frá sinne mikellre grimmdar reide, sem hann var styggdur med, yfer Juda, fyrer allt þad ed vonda med hveriu Manasses hafde uppvaked hann.

27. Og Drottin sagde: eg vil og burtkasta Juda frá minne augsiónu, so sem eg burtkasta Israel, eg vil og burtkasta þessum stad, hvern eg útvalde, sem er Jerusalem, og þvi húse, um hvørt eg sagde: mitt nafn skal þar vera.

28. Hvad meira er ad seigia um Josia, og allt þad hann gerda, siá, þad er skrifad í Juda konga chroniku.

29. Á hans døgum fór Pharao Necho, kongur af Egyptalande, upp ímóte konganum af Assyria, til þess vatns Phrath, enn kongurenn Josias fór ímót hønum, og andadest í Megiddo, epter þad hann hafde sed hann.

30. Og hans Þenarar færdu hann daudann frá Megiddo, og fluttu hann til Jerusalem, og jørdudu hann i sinne grof. Enn landsins fólk tók Joachas, son Josia, og smurdu hann, og settu hann til kongs í sins fødurs stad.

31. Joachas hafde þriu ár um tvitugt þá hann vard kongur, og ríkte þriá mánude í Jerusalem. Hans moder het Hamutal, dotter Jeremiæ, af Libna.

32. Og hann gerde þad sem Drottne illa líkade, so sem hans forfedur høfdu gert.

33. Enn Pharao Necho tók hann til fánga í Riblath, í lande Hemath, so hann skyllde eigi ríkia í Jerusalem, og hann lagde skattgialld uppá landed, hundrad centener silfurs, og eitt centener gulls.

34. Og Pharao Necho sette Eliachim, son Josiæ, til kongs í sins fødurs stad Josiæ, og snere hans nafne, og let hann heita Joachim. Enn hann tók Joachas, og færde hann í Egyptaland, þar andadest hann.

35. Og Joachim gaf Pharao þad silfur og gull. Þo lagde hann fegialld á landed þar til, so hann mætte útgefa sama silfur, epter

Pharaonis bifalningu, hann lagde þetta siárgiallð silfurs og gulls á hvern mann í landenu, epter sínum mætte, so að hann mætte það gefa Pharao Necho.

36. Joachim var fimm og tuttugu ára gamall þá hann varð kongur, og hann ríkte ellefu ár í Jerusalem. Hans moder het Sebuda, dotter Pedai, af Ruma.

37. Og hann gerde það sem Drottne illa líkade, so sem hans forfedur gerdu.

## 24. Capitule.

1. A hans døgum fór upp Nabuchodonosor, kongur af Babylon, og Joachim var hønum undergefenn í þriú ár. Og han snere ser, og fell frá hønum.

2. Og Drottin let koma yfer hann stríðsfólk af Chaldea, af Syria, af Moab, og af børnum Ammon, og let þá koma í Juda, so þeir skylldu fyrerkoma hønum, epter orde Drottins, sem hann hafde talað fyrer spámennena, sína þenara.

3. Það skede Juda so epter Drottins orðum, að hann varpade þeim fra sínne ásiónu, søkum Manasses synda, sem hann hafde gert.

4. Og fyrer søkum þess saklausa blóðs sem hann uthellte, og fyllte Jerusalem með saklaust blóð, það vilde Drottinn eigi fyrergefa.

5. Hvað meira er að seigia um Jojakim, og allt hvað hañ gerde, siá, það er skrifað í Juda konga chronicu.

6. Og Jojakim sofnade með sínum fedrum, og hans sonur Jojachim varð kongur í hans stað.

7. Og kongur Egyptalands fór eigi þaðann í frá af sínu lande, því kongurenn af Babylon hafde tekeð frá hønum allt það sem Egyptalands kongur átte, frá Egyptalands læk, og allt að vatnenu Phrath.

8. Jojachim var átian ára gamall þá hann varð kongur, og hann ríkte þría mánuðe í Jerusalem. Hans moder het Nehusta, dotter Elnathans, af Jerusalem.

9. Og hann gerde það sem Drottne illa líkade, so sem hans fader hafde gert.

10. A þeim tíma fóru þenarar Nabogodonosors kongs af Babylon, upp til Jerusalem, og staðurenn varð umsetinn.

11. Og þá Nabogodonosor kom til borgarennar, með sínum þenorum, setteſt hann um hana.

12. Enn Jojachim, kongurenn af Juda, geck út móte kongenum af Babylon með sínne moður, með sínum þenorum, og með sínum høfdingium og herbergis sveinum. Og kongurenn af Babylon tók hann, á því áttunda áre hans kongs ríkis.

13. Og hann tók í burt þaðann alla þá fesióðu í Drottins húse, og í kongsins húse, og braut í sundur øll gullker sem Salomon, Israels kongur, hafde gera láteð í mustere Drottins, so sem Drottinn hafde sagt.

14. Og hann flutte í burtu alla Jerusalem, alla høfdingia alla vollduga menn, tíu þusund hertekna, alla tresmiðe, og allshättaða smiðe, so hann let engann epter vera nema almúga fólk í landenu.

15. Og hann flutte Joachim, og kongsins moður, kongsins kvinnur, og hans herbergis sveina, til Babylon. Her með flutte hann og þá enu megtugu í landenu af Jerusalem, fángaða til Babylon.

16. Og sio þusund af því fólke

sem best var, þusund tresmide, og hagleiks menn, alla sterka stríds menn, og kongurenn af Babylon flutteí Babylon.

17. Enn Babylons kongur sette Matthania, hans fødur brodur, til kongs í hans stad, og snere hans nafne, og kallade hann Zedechias.

18. Zedechias hafde eitt ár og tuttugu ad alldre þá hann vard kongur, og hann ríkte ellefu ár í Jerusalem: hans moder het Hamital, dotter Jeremia af Libna.

19. Og hann gerde þad sem Drottne illa líkade, so sem Jojakim hafde gert.

20. Þvi þad skede so med Jerusalem og Juda af Drottins reide, þár til ad hann kastade þeim frá sinne ásiónu, og Zedechias fell frá kongenum í Babylon.

## 25. Capitule.

1. Enn þád skede so, á níunda áre hans kongsríkis, á þess tíunda mánudar tíunda deige, þá kom Nabogodonosor, kongurinn af Babylon, med allre sinne magt á móte Jerusalem, og þeir settust um hana, og byggdu virke íkringum hana.

2. So vard stadurenn umsetenn allt til ellefta árs kongsins Zedechia.

3. Enn á þeim níunda mánade vard hungred megnt í stadnum, so ad landsfolked hafde ecke ad eta.

4. Þá var brotest ínn á stadenn, og aller strídsmennerner, flydu um nótt, á þeim ports veige á millum þeirra tveggia múra sem liggur til kongsins urtagards,(enn þeirChaldei láu um stadenn). Enn han flyde á þann veg sem liggur til þeirrar slettu merkur.

5. Enn magt þeirra Chaldaisku sókte epter kongenum, og gripu hann á þvi slettlende hiá Jericho, og allt þad strídsfólk sem var med hønum sundurdreifdest frá hønum.

6. Enn þeir gripu konginn, og færdu hann upp í Riblath, til kongsins af Babylon, og þeir felldu dóm yfer hannum.

7. Og þeir slátrudu børnum Zedechie fyrer hans augum, og þeir blindudu Zedechiam á hans augum, og bundu hann med kedium, og fluttu hann til Babylon.

8. A fiounda deige, í þeim fimmta mánade, þad nitiánda ár Nabogodonosors, kongs af Babylon, þá kom Nebusar Adan, hofmeistare, kongsins þenare af Babylon, til Jerusalem.

9. Og hann brennde upp Drottins hús, og kongsins hús, og øll hús í Jerusalem, og øll stór hús brennde hann upp med ellde.

10. Og øll magtenn þeirra Chaldaisku, sem var med hofmeistaranum, braut nidur. murenn í kringum Jerusalem.

11. Enn þad annad fólk sem epter var orded í stadnum, og þeir sem gáfu sig til kongsins af Babylon, og þad annad unga fólk flutte Nebusar Adan, hofmeistare, í burtu.

12. Enn hofmeistarenn let epter í landenu þá hina minnstu þáttar víngardsmenn og bændur.

13. Og þeir Chaldei sundurbrutu þá koparstolpa, í Drottins húse, og stólana, og þad koparhaf sem var í Drottins húse, og færdu koparenn í Babylon.

14. Og katlana, skuflurnar, knífana, skeidernar, og øll koparkerenn, sem til þionustunnar voru høfd, tóku þeir burt.

15. Þár til tók hofmeistarenn þær pønnur og munnlaugar, sem voru af gulle og silfre.

16. Tvo stólpa, eitt haf, og þá stóla sem Salomon hafde gert til Drottins húss. Enn koparenn vard eigi veigenn af øllum þessum kerum.

17. Einn stólpe var átian álna hár, og hans knappur þar ofann á var og so af kopar, og þriggia álna hár, og streingerner og granat eplenn rett um kring knappenn, þad var allt af kopar, í sama máta var og sá annar stólpen med streingiunum.

18. Og hofmeistarenn tók prestinn Seraja, sem var í fyrstu ordu, og prestenn Sephania, sem var af ánnare ordu, og þria dyravaktara.

19. Og einn herbergissvein af borgenne, sem var settur yfer stridsmennena, og þá fimm menn sem alltíd voru fyrer kongenum, og fundner voru í stadnum, og Sopher, stríds høfuds mann, sem lærde fólked í landenu ad beriast, og sextiu menn af landsins fólke sem fundust í stadnum.

20. Þessa tók hofmeistarenn Nebusar Adan, og færde þá til kongsins af Babylon til Riblath.

21. Og Babylons kongur sló þá í hel í Riblath, í lande Hemath. So vard Juda burtsluttur úr sínu lande.

22. Enn Nabogodonosor, kongur af Babylon, sette Gedalia, son Ahikam, sonar Saphan, yfer þad fólk, sem hann let epter vera í Juda.

23. Enn sem allt stríðsfólket, høfudsmennerner, og mennerner heyrdu þad, ad kongurenn af Babylon hafde sett Gedaliam, þá komu þeir til Gedalia til Mizpa, sem var, Ismael, sonur Nethaniæ, og Johanan, sonur Kareah, og Seraja, sonur Thanhumeth, Nethophatither, og Jaesania, sonur Maechati, med sína menn.

24. Og Gedalia sór þeim og þeirra mønnum, og sagde til þeirra: óttest eigi ad vera undergefner þeim Chaldaisku, vered í landenu, og vered Babylons kongi undergefner, þá skal þad ganga ydur vel.

25. Enn á þeim siøunda Manude kom Ismael, sonur Nethaniæ, sonar Elisama, af konunglegre ætt og tíu menn med hønum, og slóu Gedaliam í hel, og þar til þá Gydinga og Chaldeos sem voru hiá hønum í Mizpa.

26. Þá tók sig upp allt fólked, bæde smáer og stórer, og þeir upprustu sem voru fyrer stríðsfólkenu, og komu í Egyptaland, þviad þeir óttudust þá Chaldeos.

27. A því seitianda og tuttugasta áre, epter þad ad Jojachin, kongur af Juda, vard í burt fluttur, þann siøunda og tuttugasta dag, á þeim tolfta mánude, þá upphóf Evil Merodach, kongur af Babylon, á fyrsta áre síns ríkis, høfud Jojachins Judæ kongs, af mirkva stofu.

28. Og talade vingiarnlega vid hann, og sette hans stól yfer þeirra konga stóla sem voru hiá hønum í Babylon.

29. Og hann umskipte hans fánggelsis klædum, og hann át ætíd hiá hønum, alla sína lífsdaga.

30. Og hann skickade hønum sinn deil, sem gafst hønum allíd af kongsins, hvern dag, alla hans lífs tíd.

Ender á þeirri annare kongabókenne.

# Su fyrsta Chronicu Bókenn.

## 1. Capitule.

1. Adam, Seth, Enos.
2. Kenan, Mahalaleel, Jared.
3. Henoch, Methusala, Lamech.
4. Noe, Sem, Cham, Japheth.
5. Børn Japheths eru þesse, Gomer, Magog, Madai, Javan, Thubal, Mesech og Thiras.
6. Børn Gomer eru þesse, Ascenas, Riphat, og Thogarma.
7. Enn børn Javan eru þesse, Elisa, Tharsia, Chitim, Dodanim.
8. Børn Chams eru, Chus, Mizraim, Put, og Canaan.
9. Enn børn Chus eru, Seba, Hevila, Sabtha, Raema, Sabtheca. Børn Raema eru, Scheba og Dedan.
10. Og Chus gat Nimrod, hann tok til ad verda megtugur á jørdenne.
11. Mizraim gat Ludim, Anamim, Lehabim, Naphthuhim.
12. Pathrusim, Casluhim, af hverium Philistim og Caphthorim eru komner.
13. Og Canaan gat Zidon sinn hinn fyrsta son, Heth.
14. Jebusi, Amori, Girgosi.
15. Hevi, Arki, Sini, Arvadi.
16. Zemari og Hemathi.
17. Sems børn eru þesse, Elam, Assur, Arphachsad, Lud, Aram, Uz, Hul, Gether og Masech.
18. Og Arphachsad gat Salah, Salah gat Eber.
19. Enn Eber gat tvo syne, sá eine het Pheleg, þviad landed skiptest í hans tíd, og hans broder het Jaktan.
20. Enn Jaktan gat Almoda, Saleph, Hazarmaveth, Jarah.
21. Hadoram, Usal, Dikla.
22. Ebal, Abimael, Scheba.
23. Ophir, Hevila og Jobab, þesse eru øll børn Jaktans.
24. Sem, Arphachsad, Sala.
25. Eber, Peleg, Regu.
26. Serug, Nahor, Tharah.
27. Og Abram, þad er Abraham.
28. Enn børn Abrahams eru Isaac og Ismael.
29. Og þesse er þeirra ættkvísl. Sá fyrste sonur var Nebaioth, Kedar, Adbeel, Mibsam.
30. Misma, Duma, Masa, Hadad, Thema.
31. Jethur, Naphis, Kedma. Þesse eru Ismaels børn.
32. Enn børn Keture, frillu Abrahams, hún fædde Simram, Jaksan, Medan, Midean, Jesbak, og Suah. Og børn Jaksans voru Scheba, og Dedan.
33. Enn børn Mudians eru Epha, Epher, Henoch, Abida, og Eldaa. Þesser aller eru børn Keture.
34. Abraham gat Isaac. Enn børn Isaacs eru þeir Esau og Israel.
35. Enn børn Esau eru, Eliphas, Reguel, Jeus, Jaelam, og Korah.
36. Børn Eliphas eru, Theman, Omar, Zephi, Gaetham, Kenas, Thimna, og Amalek.
37. Børn Reguels eru, Nahath Serah, Samma og Misa.
38. Børn Seirs eru, Lothan, Sobal, Zibeon, Ana, Dison, Ezer, og Disan.
39. Børn Lothans eru, Hori, Homam, og Thimna var Syster Lothans.
40. Børn Sobals eru, Alian,

Manahath, Ebal, Sephi, Onam. Børn Zibeons eru, Aia, og Ana.

41. Børn Anæ, Dison. Børn Disons eru, Hamram, Esban, Jethran, og Chran.

42. Børn Ezers eru, Bilhan, Saevan, og Jaekan. Børn Disan eru, Uz og Aran.

43. Enn þesser eru þeir kongar sem ríkt hafa í lande Edom, ádur enn nockur kongur ríkte á medal Israels barna, Bela, sonur Beors, og hans stadur het Dinhaba.

44. Enn sem Bela andadest, þá vard Jobab, sonur sera, af Bazra, kongur í hans stad.

45. Enn sem Jobab andadest þá vard Husam, af lande Themaniter, kongur í hans stad.

46. Enn sem Husam var daudur, þá vard Hadad, sonur Bedad, kongur í hans stad, hver ed sló þá Madianita, á Moabita vøllum, og hans stadur het Avith.

47. Enn sem Hadad andadest þá vard Samla af Masrek, kongur í hans stad.

48. Sem Samla dó, þá vard Saul af Rehoboth, hiá vatnenu, kongur í hans stad.

49. Enn sem Saul dó, þá vard kongur í hans stad Baalhanan, sonur Achbors.

50. Sem Baalhanan var daudur, þá vard Hadad kongur í hans stad, og hans stadur het Pagi, enn hans kvinna het Mehethabeel, Dotter Madreth, og dotter Mesahabs.

51. Enn sem Hadad dó, þá urdu hertogar i Edom, hertogenn Thimna.

52. Hertoge Alia, hertoge Jetheth, hertoge Ahalibama, hertoge Ela, hertoge Pinon.

53. Hertoge Kenas, hertoge Theman, hertoge Mibzar.

54. Hertoge Madiel, hertoge Iram; þesser voru hertogar í Edom.

## 2. Capitule.

1. Þesse eru børn Israels, Ruben, Simeon, Levi, Juda, Isaschar, Sebulon.

2. Dan, Joseph, Ben-Jamin, Nephthali, Gad og Asser.

3. Børn Judæ eru Ger, Onan, Sela. Þesser þrír voru hønum fædder af dottur þeirrar Cananitisku kvinnu Suha. Enn Ger, fyrste sonur Judæ, var illur fyrer Drottne, og þvi sló hann hann íhel.

4. Enn Thamar, hans mágkona, fædde hønum Perez og Serah, so ad børn Judæ voru simm alls.

5. Børn Perez eru, Hesron og Hamul.

6. Børn Serah eru, Simri, Ethan, Heman, Chalcol, Dara. Og þesser aller eru fimm.

7. Børn Charmi eru, Achan, sem ad sturlade Israel, þá hann forgreip sig á þvi, sem bannfært var.

8. Børn Ethans eru Asaria.

9. Enn børn Hesrons, sem hønum eru fædd, eru Jerahmeel, Ram, og Chalubai.

10. Ram gat Amminadab. Amminadab gat Nahesson, hvør ed var høfdinge yfer Juda.

11. Nahesson gat Salma. Salma gat Boas.

12. Boas gat Obed. Obed gat Isai.

13. Isai gat Eliab sinn fyrsta son, Abi-Nadab annann, Simea hinn þridia.

14. Nethaneel hinn fiorda, Raddai hinn fimmta.

15. Ozem þann siötta, og David hinn siøunda.

16. Enn Zeruia og Abigail voru þeirra systur. Børn Zeruia eru, Abisai, Joab, og Asahel, þeir þrír.

17. Enn Abigail fædde Amasa, enn Jether, sá Ismaelite, var fader Amasæ.

18. Caleb, sonur Hesron, gat vid Asuba sinne kvinnu, og Jerigoth, og þesse eru hennar børn, Jeser, Sobab og Ardon.

19. Enn sem Asuba andadest, þá tók Caleb Ephrath, og hún fædde hønum Hur.

20. Enn Hur fædde Uri, enn Uri fædde Besaleel.

21. Þar epter svaf Hesron hiá dottur Machir, fødur Gilead, og tók hana, þá hann var sextíu ára gamall, og hún fædde hønum Segub.

22. Og Segub fædde Jair, hann átte þriár og tuttugu borger í landenu Gilead.

23. Og hann feck af þeim Gesur og Aran, þorpenn Jair. Þar med Kenath med hennar dætrum, sextíu stødum. Aller þesser eru børn Machirs fødurs Gilead.

24. Enn sem Hesron dó í Caleb í Ephrata, þá let Hesron sína húsfrú Abia epter sig, og hún fædde hønum Ashur, fødur Thekoa.

25. Jerahmeel, fyrste sonur Hesrons, átte børn, þánn fyrsta, Ram, Buna, Oren, og Ozem, og Ahia.

26. Og Jerahmeel hafde enn adra kvinnu, hún het Atara, og hún var moder Onams.

27. Enn børn Rams, þess fyrsta sonar Jerahmeels, eru Maøm, Jamin og Echer.

28. Og Onam átte børn, Samai og Jada. Nadab og Abisur eru børn Samai.

29. Enn kvinna Abisurs het Abihael, og hún fædde hønum Ahban, og Molid.

30. Børn Nadabs voru Seled og Appaim, enn Seled andadest barnlaus.

31. Børn Appaim eru Jesei. Og børn Jesei var Sesan, børn Sesan eru Ahelai.

32. Enn børn Jadæ, brodurs Samai, eru Jether og Jonathan, og Jether dó barnlaus.

33. Enn børn Jonathans eru, Peleth og Sasa. Þesse eru børn Jerahmeels.

34. Sesan hafde enga sonu, helldur dætur. Og Sesan hafde einn egyptskann þenara, sem het Jarrha.

35. Og Sesan gaf Jarrha sínum þenara sína dotter til eigennkvinnu, og hún fædde hønum Athai.

36. Athai gat Nathan. Nathan gat Sabad.

37. Sabad gat Ephlal. Ephlal gat Obed.

38. Obed gat Jehu. Jehu gat Azaria.

39. Azaria gat Halez. Halez gat Elleasa.

40. Elleasa gat Sissemai. Sissemai gat Sallum.

41. Sallnm gat Jekamie. Jekamia gat Elisama.

42. Børn Calebs, brodur Jerahmeels, eru, Mesa hans fyrste sonur, hann er fader Siphs, og barna Maresa, fødurs Hebrons.

43. Børn Hebrons eru, Chorah, Thapua, Rechem, og Sama.

44. Sama gat Raham, fødur Jarkaam. Rechem, gat Samai.

45. Enn sonur Samai het Maon, enn Maon var fader Bethsurs.

46. Og Epha, frilla Calebs, hún fædde Haran, Moza, og Gases. Og Haran gat Gases.

47. Og børn Jahdai eru, Rekem, Jothan, Gesan, Peleth, Epha og Saaph.

48. Og Maecha, frilla Calebs, fædde Seber, og Thirhena.

49. Og hún fædde einnenn Saaph, fødur Madmanna, og Seva, fødur Machbena, og fødur Gibea. Enn Achsa var dotter Calebs.

50. Og þetta voru børn Calebs, Hur hinn frumgetne, af Ephrata, Sobal, fader þerra af Kiriath Jearim.

51. Salma, fader Bethlehems, Hareph, fader Bethgaders.

52. Og Sobal, fader Kiriath Jearim, hafde syne, hann sá hálft Manuhoth.

53. Etternar í Kiriath Jearim voru Jethritar, Puthitar, Sumahitar, og Misraitar. Af þessum eru þeir Zaregathitar og Esthaolitar komner.

54. Børn Salma eru Bethlehem, og þeir Netophatitar, Joabs, húss korona, og hálfpart af þeim Manahthiter, af þeim Zareither.

55. Og sú skrifara ætt sem bió í Jabes, eru þeir Thiriathitar, Simeathitar, Suchathitar. Pad eru þeir Kinitar, sem komner eru af Hamath, fødur Bethrechabs.

## 3. Capitule.

1. Þesse eru børn Davids, sem hønum fæddust í Hebron: sá fyrsti Amnon, af Ahinoam af Jesreel. Sá annar Daniel, af Abigail af Carmel.

2. Enn þride Absalon, sonur Maecha, hver ed var dotter kongsins Thalmai af Gesur. Enn fiorde var Adonia, sonur Hagith.

3. Enn fimmte Saphat Ja af Abital. Enn siøtte Jethream, af hans eigenkvinnu Egla.

4. Þesser sex voru hønum fædder í Hebron, þvi han rikte þar í siø ár og sex mánude. Enn í Jerusalem rikte hann þriu og triatiu ár.

5. Og þesser eru hønum fædder í Jerusalem, Simea, Sobab, Nathan, Salomon, þesser fiórer af Bathsua, dottur Ammiels.

6. Þar til Jebehar, Elisama, Eliphaleth.

7. Noga, Nepheg, Japia.

8. Elisama, Eliada, og Eliphaleth, þesser níu.

9. Þetta eru allt Davids børn, ad auk þeirra barna, sem voru hans frillu børn, og Thamar var þeirra syster.

10. Enn Salomons sonur var Roboam, hans sonur var Abia, hans sonur var Assa, hans sonur var Josaphat.

11. Hans sonur var Joram, hans sonur var Ahasia, hans sonur var Joas.

12. Hans sonur var Amazia, hans sonur var Asaria, hans sonur var Jotham.

13. Hans sonur var Achas, hans sonur var Ezechias, hans sonur var Manasse.

14. Hans sonur var Amon, hans sonur var Josia.

15. Enn syner Josia voru, enn fyrste Johanan, annar Joakim, þride Zedechia, fiorde Sallum.

16. Enn Joakims børn voru Jechania, hans sonur var Zedechia.

17. Enn børn Jechania, sem fángenn vard, voru, Sealthiel.

18. Malchiram, Phadaja, Sennezar, Jekamia, Hosama, Nedabja.

19. Zerubabel og Simei voru børn Phadaja. Mesullam og Hananja, og þeirra syster Selomith, voru børn Zerubabels.

20. Þar til og Hasuba, Ohel, Berechja, Hasadja, Jusab, Hesed, þau fimm.

21. Enn børn Hananja voru Platja, Jesaja, hans sonur var Rephaja, hans sonur var Arnan, hans sonur var Obadja, hans sonur var Sachanja.

22. Enn børn Sechanja voru, Semaja, og Semajæ børn voru, Hatus, Jegeal, Bareah, Nearja og Saphat, þau sex.

23. Og Nearjæ børn voru Elioenai, Hiskia, Asrikam, þeir þrír.

24. Og børn Eliœnai voru Hodaja, Eliasib, Plaja, Akub, Johanan, Delaja, og Anani, þeir siø.

## 4. Capitule.

1. Børn Juda voru Perez, Hezron, Charmi, Hur, og Sobal.

2. Enn Reaja, sonur Sobals, gat Jahath. Enn Jahath gat Ahumai og Lahad.

3. Þessar eru Zaregathitanna ætter. Og þetta er ætt Ethams fødurs, Jesreel, Jesma, Jedbas, og þeirra syster het Hazlelponi.

4. Pnuel, fader Gedors, og Eser, fader Husa, þetta eru børn Hurs, frumgetins sonar Ephratæ, fødurs Bethlehems.

5. Enn Ashur, fader Thekoa, hafde tvær kvinnur, Hellea og Naera

6. Enn Naera fædde hønum Ahusam, Hepher, Themni, Ahastari, þetta eru børn Naera.

7. Og børn Hellea voru, Zereth, Jezohar og Ethnan.

8. Enn Koz gat Anub og Hozobeba og Aharhel, Harum sonar ætt.

9. Enn Jaebez var veglegre enn hans brædur, og hans moder kallade hann Jaebez, þvi hun sagde, med sorg hefi eg hann fæddann.

10. Og Jaebez kallade á Jsraels Gud og sagde: ef þú blessar mig, og vídkar út mín landamerke, og þín hønd verdur med mer, og lætur so ske, ad þad hið vonda skurli mig eigi. Og Gud let koma þad hann bad.

11. Chalub, broder Suha, gat Mehir, hann er fader Esthons.

12. Og Esthon gat Bethrapha, og Thehinna sem var fader Nahas stadar, þetta eru þeir menn af Recha.

13. Enn børn Kenas voru Athniel og Saraja. Enn børn Athniels voru Hathath.

14. Enn Meonothai gat Ophra, og Saraja gat Joab, sem var fader þeirra tresmida í Dalnum, þviad þeir vorn tresmider.

15. Enn børn Calebs, sonar Jephunne, voru, Jru, Ela, og Naam. Børn Ela voru Kenas.

16. Og børn Jehaleleels voru Siph, Sipha, og Thiriah, og Asareel.

17. Enn børn Esra voru, Jether, Mered, Epher, og Jalon, og hun fædde MirJam, Samai og Jesbah Estemoa fødur.

18. Og hans kvinna Judi Ja fædde Jered, fødurs Gedors, og Heber, fødur Socho, Jechutiel, fødur Sanoah. Þesser voru børn Bithia, dottur Pharaos, hveria Mared tók.

19. Børn þeirrar kvinnu Hodi Ja, systur Nahams, fødurs Kegila, voru Garmi, og Estemoa af Maechath.

20. Og børn Simons voru Ammon, Rinna og Benhanan, og Thilon. Børn Jesei voru, Soheth og Bensoheth.

21. Og børn Sela, sonar Judæ voru, Er, fader Lecha, og Laeda, fader Maresa, og þær línvefara ætter í húse Asbeas.

22. Þar til med Jokim, og þeir menn af Koseba, Joas og Saraph, þeir urdu Herrar í Moab, og í Jasubi í Lahem, so sem gamlar rædur hlióda.

23. Þeir voru leirkerasmidir, og biuggu á millum þeirra plantanna, og gardanna, hiá kongenum,

þókum hans verka, og komu og voru þar.

## 5. Capitule.

24. Børn Simeons voru, Nemuel, Jamin, Jarib, Sera og Saul.

25. Hans sonur var Sallum, hans sonur var Mibsam, hans sonur var Misma.

26. Børn Misma voru, Hamuel, hans sonur var Zachur, hans son var Simei.

27. Enn Simei átte sextan syne, og sex dætur, enn hans brædur høfdu eigi mørg børn. Þvi allur hans ætthringur jók sig eigi so sem Judæ børn.

28. Og þeir biuggu í BerSeba, Molada, Hazar, Sual.

29. Bilha, Ezem, Tholad.

30. Bethuel, Harma, Ziklag.

31. Beth Marchaboth, Hazarsussim, Beth Bieri, Saaraim: þetta vóru heirra stader allt til Davids kongs.

32. Þar med þorp þeirra, Etham, Ain, Rimmon, Tochen, Asan, þeir fimm stader.

33. Og øll þorp sem voru í kringum þessa stade, allt ad Baal, þad eru þeirra heimele, og þeirra epterkomenda á medal þeirra siálfra.

34. Og Mesobab, Jamlech, og Josa, sonur Amaziæ.

35. Joel, Jehu, sonur Josibjá, sonur Seraja, sonar Asiels.

36. Elioenai, Jaecoba, Jesohaja, Asaja, Adiel, Ismael og Benaja.

37. Sisa, sonur Siphei, sonar Allon, sonur Jedaja, sonar Simri, sonar Semaja.

38. Þesser, sem nu eru nefnder, urdu høfdingiar í þeirra ætt, og í þeirra fedra húse, skiptu þeir sier epter margfiøldanum.

39. Og þeir fóru í burt, so þeir kiæmu til Gedor, allt ínn á móte austur sídu dalsins, ad leita ad haglende handa sínum saudum.

40. Og þeir fundu feitt og godt haglende, og eitt land bæde vídt og breidt, spakt og fridlegt, þvíad þeir af Ham høfdu búed þar fordum

41. Enn þeir sem nú eru skrifader komu í Ezechiæ Juda kongs tíd, og slóu hinna annara tialldbúder og heimele, sem þar urdu fundner, og foreyddu þeim ínn til þessa dags, og biuggu í þeirra stødum, þvíad þar var haglended fyrer þeirra fe.

42. Og þar geingu út af þeim sem voru af børnum Simeons, í burt, fimhundrud manns, til fiallsins Seir, med sínum høfdingia, Platja, Nearja, Rephaja og Usiel, børn Jesei.

43. Og slóu þá í hel, sem epter høfdu orded af þeim Amalekitum, og biúggu þar inn til þessa dags.

## 6. Capitule.

5. Cap. 1. Rubens børn, þess fyrsta sonar Israels, því hann var sa fyrste sonur: enn søkum þess, ad hann saurgade síns fødurs sæng, vard hans frumgetning gefenn børnum Josephs, sonar Israels, og hann var eigi reiknadur fyrer hann hinn frumgetna.

2. Þvi Juda var megtugur á medal sinna brædra, og høfdingenn er af hønum, og Josephs er frumgetningenn.

3. So eru nu børn Rubens, þess fyrsta sonar Israels, Hanoch, Pallu, Hezron og Charmi.

4. Og børn Joels voru, Semaja, hvers sonur var Gog, hvers sonur var Simei.

5. Hvers sonur var Micha, hvers sonur var Reaja, hvers sonur var Baal,

6. Hvers sonur var Beera, hvern ad Tiglath Pilnesser, kongurenn af Assyria, flutte í burt hertekina, og hann var einn høfdinge á medal þeirra Rubenita.

7. Enn hans brædur, epter þeirra kynslód, þá þeir voru reiknader á medal sinnar fædingar, þá høfdu þeir Jeiel og Zacharia til hofdingia.

8. Og Bela, sonur Asans, sonar Sema, sonar Joel, sem bió í Aroer, og allt inn til Nebo, og Bal-Meon.

9. Og bió í móte austre, allt til ad kemur ad þeirre eidemørku, sem liggur ad vatnenu Phrath, þviad þeirra kvikfe var miked í Gileads lande.

10. Og þeir færdu stríd á móte þeim Hagaritum, í tíd Sauls, so þeir fellu fyrer þeirra hende, og þeir binggu í þeirra bygddum, í øllum eystra parte af Gilead.

11. Og børn Gads binggu hvert yfer frá þeim í lande Basan, inn til Salcha.

12. Joel, enn ypparste, og Saphan, sá annar, Jaenai, og Saphat í Basan.

13. Og þeirra brædur, af þeirra fedra húse, voru, Michael, Mesullam, Seba, Jorai, Jaecan, Sia, og Eber, þeir sió.

14. Þesser eru børn Abihails, sonar, Huri, sonur Jaroah, sonar Gilead, sonar Michael, sonar Jesisai, sonar Jahdo, sonar Bus.

15. Ahi, sonur Abdiel, sonar Guni, hann var hinn ypparste í þeirra fedra húse.

16. Og þeir binggu í Gilead, í Basan, og í hennar dætrum, og í øllum forstødum Saron, ínn til þeirra endemarka.

17. Þesser voru aller talder á døgum Jothams, Juda kongs, og Jeroboams, Israels kongs.

18. Børn Rubens, Gadditanna, og hálf ættkvísl Manasses, sem voru strídsmenn, og bæde báru skiølld og sverd, og kunnu ad spenna boga, og voru miøg strídskiæner, voru fiorar og fiorutíu þusunder, siø hundrud og sextíu, sem fóru í bardaga.

19. Og þá þeir fóru út til Bardaga, í móte þeim Hagaritum, komu þeim til Hiálpar, Jetur, Naphes, og Nodab.

20. Og Hagaritarner urdu gefner í þeirra hendur, og allt hvad med þeim var. Þvi þeir hrópudu til Guds í bardaganum, og hann bænheyrde þá, þvi þeir treystu uppá hann.

21. Og þeir færdu í búrt þeirra kvikfe, fimm þusund ulfallda, tvø hundrud og fimmtíu þusunder sauda, tvø þusund asna, og hundrad þusund manna sáler:

22. Þvi þar fellu margir sárer, þviad bardagenn var af Gude. Og þeir binggu í þeirra stødum, allt til þess tíma þeir voru í burtflutter.

23. Enn børn hálfrar ættar Manasses bíuggu í landenu, frá Basan og allt til Baalhermon og Senir, og fiallsins Hermon, og þeir voru marger,

24. Og þesse voru høfudenn fyrer þeirra fedra húsum, Epher, Jesei, Eliel, Asriel, Jeremja, Hodauja, og Jahdiel, vollduger reiseger menn og nafnkunnug høfud, í þeirra fedra húsum.

25. Enn þá þeir syndgudust í móte þeirra fedra Gude, og frømdu hóraner med folksins afgudum í landenu, sem Gud hafde eydelagt fyrer þeim,

26. Þá uppvakte Gud Israelis anda Phuls, hver ed var kongur í Assyria, og anda Tiglath Pilnessers, kongsins af Assyria, og

þeir burtfluttu Rubenitana, Gaditana, og þá hálfa Manasses ætt, og fluttu þá til Halah og Habor, og Hara, og til þess vatnsfallsins Gosan, allt til þessa dags.

## 7. Capitule.

6 Cap. 1. Levi børn voru Gerson, Kahath, og Merari.

2. Enn Kahaths børn voru Amram, Jezehar, Hebron og Usiel.

3. Amrams børn voru Aaron, Mose og Maria, Aarons børn voru Nadab, Abihu, Eleasar, og Ithamar.

4. Eleasar gat Phinees. Phinees gat Abisua.

5. Abisua gat Buki. Buki gat Usi.

6. Usi gat Seraja, Seraja gat Merajoth.

7. Merajoth gat Amarja, Amarja gat Ahitob,

8. Ahitob gat Zadok, Zadok gat Ahimaaz.

9. Ahimaaz gat Asarja, Asarja gat Johanan.

10. Johanan gat Asarja, sem var kennemadur í þvi húse, sem ad Salomon byggde í Jerusalem.

11. Asarja gat Amarja, Amarja gat Ahitob.

12. Ahitob gat Zadok, Zadok gat Sallum.

13. Sallum gat Hilkia, Hilkia gat Asaria.

14. Asaria gat Seraja, Seraja gat Jozadak.

15. Enn Jozadak var og burtfluttur þá tíd sem Drottinn let Juda og Jerusalem flytiast í burt fángada af Nabuchodonosor.

16. So eru nú Levi børn þesse; Gerson, Kahath, og Merari.

17. Og Gersons børn hetu: Libni og Simei.

18. Enn Kahaths børn hetu: Amram, Jezehar, Hebron og Usiel.

19. Enn Merari børn hetu: Maheli og Musi. Þesse er ætt Levitanna, á medal þeirra fedra.

20. Sonur Gersons var Libni, hvers sonur var Jahath, hvers sonur var Sima.

21. Hvers sonur var Johah, hvers sonur var Iddo, hvers sonur var Serah, hvers sonur var Jeathrai.

22. Enn sonur Kahaths var Amminadab, hvers sonur var Korah, hvers sonur var Assir,

23. Hvers sonur var Elkanæ, hvers sonur var Abi Asaph, hvers sonur var Assir,

24. Hvers sonur var Thahath, hvers sonur var Uriel, hvers sonur var Ussija, hvers sonur var Saul.

25. Elkanæ børn voru Amasai og Ahimoth.

26. Elkana, hvers sonur var Elkana, hvers sonur var Zoph, hvers sonur var Nahath.

27. Hvers sonur var Elijab, hvers sonur var Jeroham, hvers sonur var Elkana.

28. Hvers sonur var Samuel, hvers frumgetinn sonur ed var Vasni, og Abija.

29. Merari sonur var Maheli, hvers sonur var Libni, hvers sonur var Simei, hvers sonur var Usa.

30. Hvers sonur var Simea, hvers sonur var Haggija, hvers sonur var Asaia.

31. Og þesser eru þeir sem ad David skickade til ad syngia í húse Drottins, þar sem ørkenn hvíldest.

32. Og þeir þiónudu med saung fyrer samkundutialldbúdar heimelenu, þar til ad Salomon byggde Drottins hús í Jerúsalem, og stódu í sínu embætte, epter sinne skickan.

33. Og þeir eru þeir sem þar stódu, og þeirra børn. Af børnum Kahaths var Heman sá saungvare.

sonur Joels, sonar Samuels,
34. Sonar Elkana, sonar Jerohams, sonar Eliel, sonar Thoah,
35. Sonar Zuph, sonar Elkana, sonar Mathath, sonar Amasai,
36. Sonar Elkana, sonar Joel, sonar Asaria, sonar Zephania,
37. Sonar Thahath, sonar Assir, sonar Abiassaph, sonar Korah,
38. Sonar Jezehar, sonar Kahath, sonar Levi, sonar Israels,
39. Og hans broder Assaph stód vid hans hægre hond. Enn sá Assaph var sonur Berechia, sonar Simea,
40. Sonar Michaels, sonar Baeseia, sonar Malchija,
41. Sonar Athni, sonar Serah, sonar Adaja,
42. Sonar Ethan, sonar Sima, sonar Simei,
43. Sonar Jahath, sonar Gersoms, sonar Levi.
44. Enn þeirra brædur, Merari børn, stódu til vinstre sidu, sem var Ethan, sonur Kusi, sonar Abdi, sonar Malluch,
45. Sonar Hasabia, sonar Amasia, sonar Hilkia,
46. Sonar Amsi, sonar Bani, sonar Samer,
47. Sonar Maheli, sonar Musi, sonar Merari, sonar Levi.
48. Og Levitarner þeirra brædur voru gefner til allrahanda embætta, í tialldbúdar húse Drottins.
49. Enn Aaron, og hans syner, voru í embættenu, ad uppkveikia á brenneoffurs alltarenu, og á reikelsis alltarinu, til allra verka í þvi allra-helgasta, og til ad forlíka Israel, so sem Moses Guds þenare hafde boded.
50. Þesse eru Aarons børn: hans sonur Eleazar, hans sonur var Pinehas, hans sonur var Abisua,
51. Hans sonur var Buchi, hans sonur var Usi, hans sonur var Serahia.
52. Hans sonur var Meraioth, hans sonur var Amaria, hans sonur var Ahitob.
53. Hans sonur var Zadoch, hans sonur var Ahimaaz.
54. Og þesse eru þeirra heimele og sæte, í þeirra landamerkium, sem eru børn Aarons af Kahathiter slekte. Þvíad hluturenn fell þeim til.
55. Og þeir gáfu þeim Hebron í Juda lande, og hennar forstade þar í kring.
56. Enn þeir gáfu Caleb, syne Jephunne, stadarins land, og hans þorp.
57. So gáfu þeir nú Aarons børnum frelsis stadena í Juda, Hebron og Libna, med þeirra forstødum.
58. Jather og Esthemoa, med þeirra forstødum, Hilen, Debir.
59. Asan og Bethsemes, med þeirra forstødum.
60. Og af BenJamins ætt, Geba, Alemeth og Anathot, med þeirra forstødum. So ad aller staderner í þeirra ætt voru þrettan.
61. Enn þau ønnur børn Kahaths í þeirra ætt, af þvi hálfu Manasses slekte, feingu tíu stade, epter hlutfalle.
62. Gersons børn í sínu slekte, feingu af Isaschar slekte, og af slekte Asser, og af Nephthali slekte, og af Manasse slekte, í Basan, þrettan stade.
63. Merari Børn í þeirra ætt, feingu epter hlutfalle, af Rubens slekte, og Gads slekte, og af Sebulons slekte, tolf stade.
64. Og Israels børn gáfu Levitønum og so stade, med sínum forstødum,
65. Sem er epter hlutfallenu.

Af Judæ barna slekte, og af Simeons barna slekte, og af BenJamins barna slekte.

66. Þá stade sem þeir nefndu u nafn. Enn þeir sem voru af Kahaths barna ætt, þeir feingu sína landamerkis stade af Ephraims ætt.

67. So gáfu þeir þeim ødrum Kahaths barna ætthring þessa frelsis stade, Sichem á Ephraims fialle, Geser.

68. Jakmeam, Bet Hoken.

69. Aialon og GadRimon, med þeirra forstødum.

70. Par til med af þvi hálfu Manasses slekte, Aner og Bileam, med þeirra forstødum.

71. Enn børnum Gersons gáfu þeir af þvi hálfu Manasses slekte, Golan í Basan, og Astharoth, med þeirra forstødum.

72. Af Isaschars slekte, Kedes, Dabrat.

73. Ramoth og Anem, med þeirra forstødum.

74. Af Assers slekte, Masal, Abdon.

75. Hukok og Reob, med þeirra forstødum.

76. Af Nephthali slekte, Kedes í Galilea, Hammon og Kiriathaim med þeirra forstødum.

77. Þeim ødrum Merari børnum gáfu þeir af Sebulons ætt, Rimono og Thabor, med þeirra forstødum.

78. Og hinumeigen Jórdanar, gegnt Jericho, austur fra Jordan, af Rubens slekte, Bezer í eydemørku, Jahza.

79. Kedemoth, og Mepaath med þeirra forstødum.

80. Af Gads ætt, Ramoth í Gilead, Mahanaim.

81. Hesbon og Jaeser, med þeirra forstødum.

## 8. Capitule.

7. Cap. 1. Børn Isaschars voru, Thola, Pua, Jasub, og Simren, þeir fiórer.

2. Og børn Thola voru, Usi, Rephaia, Jeriel, Jahmai, Jeb, sam og Samuel, høfdingiar í þeirra fedra húse, af Thola, og eitt volldugt folk í þeirra ætt, tala þeirra á Davids tíma, var tvær og tuttugu þusunder og sex hundrud.

3. Børn Usi voru Jesraja. Børn Jesraja voru Michael, Obadia, Joel, og Jesia, þeir fimm, og voru aller høfudsmenn.

4. Enn med þeim, á medal þeirra ætta, í þeirra fedra húse, voru sex og þriátíu þusunder, það fólk sem var fært í stríd, þviad þeir høfdu margar kvinnur og børn.

5. Og þeirra brædur af øllu Isaschars slekte, hraust fólk, voru siø og áttatíu þusunder, og voru aller reiknader.

6. BenJamins børn voru Bela, Becher, og Jedial, þeir þrír.

7. Og børn Bela voru, Ezbon, Usi, Usiel, Jerimoth, og Iri, þeir fimm høfudsmenn í fedranna húse, volldugt fólk. Þeir voru reiknader tvær og tuttugu þusunder, og fiører og þriátíu.

8. Børn Bechers voru, Semira, Joas, Elieser, Elioenai, Amri, Jeremoth, Abia, Anathoth, og Alemeth, þesser aller voru børn Bechers.

9. Og þeir voru reiknader, í þeirra ætt, epter høfudsmønnum í þeirra fedra húse, tuttugu þusunder, og tvø hundrud, volldugt fólk.

10. Og børn Jedial voru, Bilhan. Børn Bilhan voru, Jeus, BenJamin, Ehud, Enaena, Sethan, Tharsis og Ahisaar.

11. Þeir voru aller børn Jedia-

els, høfudsmenn þeirra fedrá, hrauſt fólk, seitían þusunder, og tvø hundrud, sem út fóru í herinn til ſtrids.

12. Og Supim og Hupim vóru børn Irs, og Húſim var Ahers børn.

13. Nephthali børn voru Jahziel, Guni, Jezer, og Sallum børn af Bilha.

14. Børn Manaſſe voru þeſſe, Esriel, ſem Aramja hans frilla fæddé, enn hann gat Machir fødur Gileads.

15. Og Machir gaf Hupim og Supim kvinnur, hans ſyſter het Maecha. Hans annar ſonur het Zelaphehad. Og Zelaphehad hafde dætur.

16. Og Maecha húſtru Machirs fædde einn ſon, þann kallade hún Peres, og hans bróder het Sares, hans ſyner voru þeir, Ulam og Rachem.

17. Og ſonur Ulams vár Bedam, og þeſſe eru Gileads børn, ſonar Machirs, ſonar Manaſſes.

18. Og hans ſyſter Mólecheth fædde Ishud, Abieſer, og Mahela.

19. Og Semida átte þeſſe børn, Ahean, Sichem, Likhi og Aniam.

20. Þeſſe voru Ephraims børn, Suthelah, hans ſonur var Bered, hans ſonur var Thahath, hans ſonur var Eleada, hans ſonur var Thahath.

21. Hans ſonur var Sabad, hans ſonur var Suthelah, og Eſer, og Elead. Enn þeir menn í Gath, landſins innbyggiarar, ſlóu þá ihel, þviad þeir voru útfarner ad taka þeirra kvikfe.

22. Og Ephraim, þeirra fader, fyrgde leinge, og hans brædur komu ad hugga hann.

23. Og hann kennde ſinnar kvinnu, og hún vard þungud, og fædde einn ſon, þann kallade hann Bria, þviad hun hafde vered í angiſt í hans húſe.

24. Hans dotter var Seera, hún byggde upp þad nedſta og efſta Bethhoron, og Uſen Seera.

25. Hans ſonur var Rephath, og Reſeph, hans ſonur var Thelah.

26. Hans ſonur var Tahan, hans ſonur var Laedan, hans ſonur var Amiud, hans ſonur var Eliſama.

27. Hans ſonur vár Nun, hans ſonur var Joſua.

28. Enn þeirra eign og heimele var BethEl, med ſínum dætrum, og Naeran til auſturs, og Geſer, med hennar dætrum í móte veſtre, og Sechem og hennar dætur, inn til Azza, og hennar dætra.

29. Og hiá Manaſſes børnum Beth-Sean, og hennar dætur, Thaenach, og hennar dætur, Megiddo, og hennar dætur, Dor, og hennar dætur. Í þeſſum bygguu Joſephs børn, ſem var Iſraels ſonur.

30. Aſſers børn eru þeſſe, Jemna, Jeſva, og Jeſvai, Bría, og þeirra ſyſter Serah.

31. Heber og Malchiel voru børn Briæ, hann er fader Birſaviths.

32. Og Heber gat Japhlet, Somer, Hotham, og Suah þeirra ſyſter.

33. Japhlets børn voru Paſah, Bimchal, og Aſvath, þad voru børn Japhleths.

34. Somers børn voru Ahi, Rahga, Jehuba, og Aram.

35. Og Helems hans bródurs børn vóru, Zophah, Jemna, Seles, og Amal.

36. Zophah børn vorú, Suah, Harnepher, Sual, Beri, Jemra.

37. Bezer, Hod, Sama, Silsa, Jethran, og Behera.

38. Jethers børn voru Jephunsne, Phispa, og Ara.

39. Børn Ulla voru Arah, Haniel og Rizia.

40. Þesser voru allerAssers børn, útvøld høfud, í þeirra fedra húse, megtuger menn og høfud yfer høfdingiunum. Og voru reiknader í herinn til strids, í sínu tale, sex og tuttugu þusunder manna.

## 9. Capitule.

8. Cap. 1. Ben Jamin gat Bela sinn fyrsta son, Asbal annann, Arah þann þridia.

2. Noha hinn fiorda, Rapha þann fimmta.

3. Enn Bela átte børn, Addar, Gera, Abihud.

4. Abisua, Naeman, Ahoah.

5. Gera, Sphuphan, og Huram.

6. Þesser voru børn Ehuds, þeir sem voru fedranna høfdingiar, á medal borgaranna í Geba, og foru burt til Mahanath.

7. Sem var, Naeman, Ahia, og Gera, hann færde þá burt, og hann gat Usa oh Ahiud.

8. Og Seharaim gat í lande Moab (þá hann hafde láted þá fara fra sér) af Húsim og Baera sínum kvinnum.

9. Og gat af Hodes sinne kvinnu, Jobab, Ziba, Mesa, Malcham.

10. Jeuz, Sachia, og Mirma. Þesse voru hans børn, høfdingiar fedranna.

11. Og hann gat af Husim, Abitob og Elpaal.

12. Og Eber, Miseam, og Samed voru Elpaals børn, hann uppbyggde Ono, og Lod, og hennar dætur.

13. Enn Bria og Sama voru þeir yppurstu fedur á medal borgaranna í Aialon, þeir útrymdu þá í Gath:

14. Og Ahio, Sasak, Jeremoth.

15. Sebadia, Arad, Ader.

16. Michael; Jespa og Joha, þad eru børn Brias.

17. Sebabia, Mesullam, Hiski, Heber.

18. Jesmerai, Jeslia, Jobab, børn Elpaals.

19. Jokim, Sichri, Sabdi.

20. Elioenai, Ziltai, Eliel.

21. Adaja, Braja, og Simrath, børn Simea.

22. Jespan, Eber, Eliel.

23. Abdon, Sichri, Hanan.

24. Hananja, Elam, Anthothia.

25. Jephdeja, og Pnuel, børn Sasaks.

26. Samserai, Seharja, Athalia.

27. Jaeresia, Elia og Sichri, Jerohams børn.

28. Þesser eru nú yppurstu fedranna høfdingiar af þeirra ættum, og byuggu í Jerusalem.

29. Enn í Gibeon bió fader Gibeons, og hans kvinna het Maecha.

30. Og Abdon var hans fyrste sonur, Zur, Kis, Baal, Nadab.

31. Gedeor, Ahio, og Secher.

32. Og Mikloth gat Semeja, þesser byuggu og í Jerusalem, hvert yfer fra sínum brædrum hiá þeim.

33. Ner gat Kis, enn Kis gat Saul, Saul gat Jonathan, Malchisua, Abinadab, og Esbaal.

34. Enn sonur Jonathans var Meribaal, Meribaal gat Micha.

35. Børn Michas voru Pithon, Melech, Thaerea og Ahas.

36. Og Ahas gat Joadda, Jo=

ádda gat Alemeth, Asmaveth, og Simri. Simri gat Moza.

37. Moza gat Binea, og hans sonur var Rapha, hans sonur var Eleasa, hans sonur var Azel.

38. Azel hafde sex syne; þeir hetu so, Esrikam, Bochru, Jesmael, Searja, Abadja og Hanan, þeir voru aller syner Azels.

39. Børn hans brodurs Esets voru, Ulam hans fyrsti sonur, annar Jeus, sá þride Elipelet.

40. En børn Ulams voru mikelmenne, og kiæner med Boga. þeir høfdu og marga syne og sona syne, hundrad og fimmtíu, þesser aller eru af BenJamins børnum.

## 10. Capitule.

9. Cap. 1. Og allt Israels fólk var reiknad, og slá, þad er uppskrifad í Israels og Juda konga bók, og nú burt flut til Babel, søkum þeirra misgerninga.

2. Þeir, hverer ed ádur byuggu í þeirra eignum og borgum, sem var, Israel, prestarner, levitarner, og Nethinim.

3. Enn þar byuggu nockrer af Juda børnum í Jerusalem, nockrer af børnum BenJamins, og nockrer af børnum Ephraims og Manasse.

4. Sem voru, af Perez, Juda sonar børnum, var Uthai sonur Amihuds, sonar Amri, sonar Imri, sonar Bani.

5. Enn af Siloni, Asarja hinn fyrsti sonur, og adrer hans syner.

6. Af børnum Serah, Jeguel, og hans brædur, sex hundrud og níutíu.

7. Af børnum BenJamins, Sallu, sonur Mesullam, sonar Hodavja, sonar Hassuna.

8. Og Jebneja, sonur Jerohams. Og Ela, sonur Usi, sonar Michri. Og Mesullam, sonur Sephatja, sonar Reguel, sonar Jebneja.

9. Þar med þeirra brædur í þeirra ætt, níu hundrud fimmtíu og sex. Og aller þesser menn voru fedranna høfdingiar í þeirra fedra húsum.

10. Enn af prestonum, Jedaja, Jojarib, Jachin.

11. Og Asarja, sonur Hilkia, sonar Mesullam, sonar Zadok, sonar Merajoth, sonar Ahitob, einn høfdinge í Drottins húse.

12. Og Adaja, sonur Jerohams, sonar Pashurs, sonar Melchia. Og Maesai, sonar Adiel, sonar Jahsera, sonar Mesullam, sonar Messimeleth, sonar Immer.

13. Þar med þeirra brædur, þeir yppurstu í þeirra fedra húse, þusund, siø hundrud og sextíu, idiusamt fólk í embættesins verknade í Guds húse.

14. Enn af levitønum, af sonum Merari, Semeja, sonur Hasub, sonar Asrikams, sonar Hasabia.

15. Og Bakbakar, Heres, og Galgal, og Mathanja, sonur Micha, sonar Sichri, sonar Assaph.

16. Og Obadia, sonur Semaja, sonar Galal, sonar Jeduthun. Og Berechja, sonur Asa, sonar Elkana, hverer ad byuggu í þeim Nethophathiters þorpum.

17. Enn Sallum, Akub, Talmon, Ahiman, og þeirra brædur, voru dyraverder, og Sallum sá høfdingenn.

18. Hviad her til dags høfdu þeir vardad kongsins port austanntil. Þeir voru dyraverder á medal Levi sona.

19. Og Sallum, sonur Kore, sonar Abiassaph, sonar Korah, og hans brædur, af hans fødurs húse, Korithar á embættesins verke, ad taka vara á dyrum tiadbúdarennar,

og þeirra fedur í herbúdum Drottins, og skylldu taka vara á inngøngunne.

20. Og Phinees, sonur Eleasars var ádur høfdinge yfer þeim, Þvíad Drottin var med hønum.

21. Enn Sacharia, sonur Meselemia, var vaurdur fyrer samkundu tialldbúdar portenu.

22. Aller þesser voru útvalder til vardhallds vid þrøskolldenn, tvo hundrud og tólf, þeir vorn reiknader í þeirra þorpum, og David, og Samuel siáande, skickudu þá í þeirra embætti.

23. Ad þeir og þeirra børn skylldu taka vara á Drottins húse, sem var á húse tialldbúdarennar, so ad þeir geymdu þad.

24. Og þesser sømu dyraverdir voru setter á móte þeim fiórum vindum, í móte austre, móte vestre, og móte sudre, og móte nordre.

25. Enn þeirra brædur voru í þeirra þorpum, enn skylldu þo koma her inn þann siounda dag, og vera hiá þeim alltíd.

26. Þvíad levitønum var trúad til ad vera þesser siorer yppurstu dyraverdir, og þeir voru setter yfer fiárhyrdsluna, og fiársióduna í Guds húse.

27. Og um nætur voru þeir í kringum Guds hús, þvi þeim bar ad hallda vaurd, og upplúka hvern morgun.

28. Enn sumer af þeim voru setter yfer verkfærinn til embættesins, þvi þeir báru þau út og inn, epter tølunne.

29. Enn sumer af þeim voru skickader yfer kerenn, og yfer øll heiløg verkfære, yfer similiumiøl, yfer vín, yfer oleum, yfer reykelse, yfer reykgerninga.

30. Enn nockrer af prestanna børnum gerdu reykelse.

31. Mathithia af levitønum, fyrsti sonur Sallums Korhita, var settur yfer Pønnurnar.

32. Og af Cabathiter, þeirra brædrum, voru tilskickader, þeir ed skylldu tilreida skodunar braudenn, ad þeir tilreiddu þau alla sabbaths daga.

33. Þesser eru saungararner þeirra yppurstu á medal levitanna fedra, utvalder yfer fehirdsluna, þvi dag og nótt voru þeir þar yfer ad høndla.

34. Þessir eru þeir yppurstu fedur, á medal Levitanna í þeirra ætt, þesser bygqu í Jerusalem.

35. Jeiel, fader Gibeons, bió í Gibeon, hans húsfrú het Maacha.

36. Og hans fyrste sonur Abdon, Zur, Kis, Baal, Ner, Nadab.

37. Gedor, Ahio, Sacharia, Mikloth.

38. Og Mikloth gat Simean, og þeir byggu í kringum sína brædur í Jerusalem.

39. Og Ner gat Kis. Kis gat Saul, Saul gat Jonathan, Malchisua, Abinadab, Esbaal.

40. Meribaal var sonur Jonathans. Og Meribaal gat Micha.

41. Børn Micha voru, Pithon, Melech, Thaherea.

42. Ahas gat Jaera, Jaera gat Alemeth, Asmaveth, og Simri, Simri gat Moza.

43. Moza gat Binea, og hans sonur var Raphia, hans sonur var Eleasa, hans sonur var Azel.

44. Enn Azel hafde sex syni, og hetu, Asrikam, Bochru, Jesmael, Searia, Obadia, og Hanan, þesse eru børn Azels.

## 11. Capitule.

10. Cap. 1. Enn Philistei børdust vid Israel, enn þeir af Israel flødu fyrer Philisteis, og fellu slegner á fiallenu Gilboa.

2. Enn Philistei helldu ser vid Saul og hans syne, á bak epter þeim, og slóu Jonathan, Abinadab, og Malchisua, syne Sauls.

3 Og stríded vard hardt móte Saul, og bogmennerner komu ad hønum, so hann óttadest fyrer skotmønnonum.

4. Þá sagde Saul til síns skialldsveins: bregd þú þínu sverde, og legg þú mig í gegnum med þvi, so ad þesser óumskorner kome eigi, og høndle háduglega vid mig. Enn hans skialldsveinn vilde eigi, þvi hann vard hræddur miøg.

5. Þá tók Saul sitt sverd, og fell þar á. Enn sem hans skialldsveinn sá, ad Saul var daudur, fell hann og so á sitt sverd, og let líf sitt.

6. So let Saul sitt líf, og hans þrír syner, og allt hans hús ásamt.

7. Enn sem Israels menn, sem voru í dalnum, sáu þad, ad þeir voru flúner, og ad Saul og hans syner voru dauder, þá yfergáfu þeir sína stade, og helldu á flótta, enn Philistei komu og byggu þar í.

8. Annars dags komu Philistei, ad ræna valinn, og fundu Saul og hans syni, liggiande á fiallenu Gilboa.

9. Þá flettu þeir Saul sínum klædum, og tóku hans høfud, og hans vopn, og sendu í kringum allt Philestea land, og letu þad kunngera fyrer þeirra afgudum, og fólkenu.

10. Og þeir løgdu hans vopn í síns Guds hús, og hans høfud negldu þeir upp á Dagons hús.

11. Enn sem aller þeir menn í Jabes í Gilead heyrdu allt þad sem Philistei høfdu gert Saul.

12. Þá bygguſt aller strídsmenn, og tóku líkama Sauls og hans sona, og fluttu þá til Jabes, og jørdudu þeirra bein í Jabes under eikenne, og fostudu í siø daga.

13. So dó Saul í sínum misgerningum, sem hann hafde framed í móte Drottni, í þvi, ad hann hafde eigi hallded Drottins ord, og hann adspurde spákonuna.

14. Og adspurde eigi Drottinn, þvi sló hann hann í hel, og snere kongsríkenu til Davids, sonar Isai.

## 12. Capitule.

11. Cap. 1. Og allur Israel samansafnadest til Davids í Hebron, og sagde: siá, ver erum þín bein, og þitt holld.

2. Þú hefir og so ádur fært Israel út og inn, þá Saul var kongur, so hefir og Drottinn þinn Gud sagt þer, þú skallt fæda mitt fólk Israel, og þú skallt vera høfdinge yfer mínu fólke Israel.

3. Og aller ølldungar í Israel komu til kongsins í Hebron. Og David gerde eitt sáttmál vid þá í Hebron fyrer Drottne. Og þeir smurdu David til kongs yfer Israel, epter Drottins orde, fyrer Samuel.

4. Og David fór af stad, og allur Israel med hønum til Jerusalem (þad er Jebus) þvi Jebusitar byggu í landenu.

5. Og þeir borgarar af Jebus søgdu til Davids: þu skallt eigi koma her inn. Enn David vann kastalann Zion, þad er Davids borg.

6. Og David sagde: hver sem fyrst veiter slag þeim Jebusitum hann skal vera høfdinge og hertoge. Þá uppste fyrstur Joab, sonur Serujæ, og vard høfudsmadur.

7. Og David bió á slotenu, og þar fyrer kalla menn þad Davids borg.

8. Og hann byggde borgena allt um kring, frá Millo og so allt um=

hverjes. Enn Joab gaf þeim líf sem epterlifdu í stadnum.

9. Og David fór framm og stirktist, og Drottinn Zebaoth var med honum.

10. Þesser eru þeir yppurstu á medal Davids kappa, þeir sem ærlega helldu med honum í hans kongs ríke, medal alls Israels, so ad þeir tæku hann til kongs epter orde Drottins, yfer Israel.

11. Og þesse er talann á Davids koppum. Jasabeam, sonur Hachmoni, sá ypparste á millum þriatíu, hann upplypte sínu spióte, og sló þriú hundrud (manns) í einu sinne.

12. Næst honum var Eleasar, sonur Dodos Ahohiters, og hann var á medal þeirra þriggia kappa.

13. Þesse var med David þá þeir tøludu hádungar ord, og Philistei høfdu safnast saman til strids. Og þar var eitt akurlende fullt med bygg, og fólked hellt á flótta undanu Philesteum.

14. Enn þeir geingu midt á akurlended, og frelsudu þad, og slóu Philisteos, og Drottinn veitte eina stóra hiálp.

15. Enn þeir þrír, af þeim þriátíu sem ypparster voru, fóru ofan til Davids, hiá steinbiargenu í Adullam heller. Enn herbuder Philisteanna voru í Rephaims dal.

16. Enn David var í virkenu, enn fólk Philisteanna var þá í Bethlehem.

17. Og David feck lysting og sagde: hver vill gefa mer ad drecka vatn af þeim brunne í Bethlehem, sem er under borgarhlidenu?

18. Þá brutust þesser þrír í gegnum Philisteanna herbúder, og jusu vatned ur brunnenum í Bethlehem, under portenu, sóktu þad, og báru til Davids. Enn hann villde eigi drecka þad, helldur jós hann því út fyrer Drottni.

19. Og sagde: Þad láte Drottinn langt frá mer vera, ad eg skyllde þvílíkt gera, og drecka þessara manna blód, í þeirra lífsháska, því þeir hafa sókt mer þad med þeirra lífsháska, þar fyrer villde hann eigi þad drecka. Þetta gerdu þeir þrír kappar.

20. Abisai, bróder Joabs, hann var hinn ypperste á medal þriggia, og hann upplypte sínu spióte, og sló þriu hundrud, og hann var ágiætur á medal þriggia.

21. Og hann enn þride var halldenn veglegre enn þeir tveir, og var þeirra hinn ypparste, enn þo var hann eigi til jafns vid þá þriá.

22. Benaja, sonur Jojada, sonar Ishail, hinn starfstóre, af Kabseel. Hann sló tvo leon þeirra Moabitarum, og hann geck ofan og drap eitt Leon midt í brunnenum, um snió timann.

23. Hann sló og so einn egyptskann mann, sem var fimm alna hár, og hafde eitt spiót í hende, svo stort sem einn vefiar rif. Enn hann geck ofann til hans med einn staf, og tók spióted af hans hende, og sló hann í hel med hans eigenu spióte.

24. Þad gerde Benaja, sonur Jojadæ. Og hann var frægur á millum þriggia kappa.

25. Og var hinn veglegaste af þeim þriatíu, og kom þo eigi vid þá þriá. Enn David gerde hann sinn heimuglegann rádgiafa.

26. Enn þesser eru stridskappanner, Asael, broder Joabs, Elhanan, sonur Dodos, af Bethlehem.

27. Samoth Harorither, Helez Peloniter.

28. Ira, sonur Ekes, Tekoita, Abieser, Anthothiter.

29. Sibechai Husathiter, Ilai Ahohiter.

30. Maherai Nethophatiter, Heleb, sonur Baena, Nethophatita.

31. Itkai, sonur Ribai, af Gibea, Ben-Jamins børn, Benaja Pirgathoniter.

32. Hurai af Gaasbech, Abiel Arbathiter.

33. Asmaveth Baherumiter, Eliahba Saalboniter.

34 Hasem Gisonithers børn, Jonathan, sonur Sage, Hararita.

35. Ahiam, sonur Sachar Hararita, Eliphal, sonur Ur.

36. Hepher Macheratiter, Ahia Peloniter.

37. Hezro Carmeliter, Naerai sonur Asbai.

38. Joel, broder Nathans, Mibehar, sonur Hagri.

39. Zeleg Ammoniter, Naherai Berothiter, skialldsveinn Joabs, sonur Zerajæ.

40. Ira Jethriter, Gareb Jethriter.

41. Uria Hethiter, Sabad, sonur Ahelai.

42. Adina, sonur Sisa, Rubeniter, høfudsmadur yfer þeim Rubenitum, og þriátíu voru yfer hønum.

43. Hanan, sonur Maecha, Josaphat Mathoniter.

44. Usia Asthrathiter, Samma og Jaiel, sonur Hothams Aroritæ.

45 Jediael, sonur Semri, Johahans broder, Thiziter.

46. Eliel Maheviter, Jeribai og Josavia, syner Elnaams, Jethma Moabiter.

47. Eliel, Obed, Jaesiel af Mezobaja.

## 13. Capitule.

12. Cap. 1. Pesser menn komu nu til Davids i Ziklag, þá hann var enn innelucktur fyrer Saul, syne Kis. Og þeir voru á medal þeirra kappa, sem hiálpudu til strídsins.

2. Og voru velskickader med boga á bádar hendur, med steina, pílur, og boga, af brædrum Sauls, sem voru af Ben Jamin.

3. Ahiezer sá ypparste, og Joas, børn Semajæ, Gibeathita. Jesiel og Peleb, Asmaveths børn. Baracha og Jehu, Anthothiter.

4. Jesmaja Gibeoniter, sterkastur á medal þriátíu, og yfer þriátigu. Jeremia, Jahesiel, Johanan, Josabad Gederathiter.

5. Eleusai, Jerimoth, Bealia, Samaria, Saphatia af Haroph.

6. Elkana, Jesía, Asareel, Joeser, Jasabeam, Choriter.

7. Joela og Sabadja, Jerohams børn af Gedor.

8. Af þeim Gadditum skildu sig frá til Davids, í sloted í eydemørkenne, sterker kappar og strídsmenn, hafande bæde skiølldu og spiót, og þeirra ásiónur sem Leon, og slióter sem hrein dyr á fiøllum.

9. Sa fyrste Eser, annar Obadja, þride Eliab.

10. Fiorde Masmanna, fimmte Jeremia.

11. Siøtte Athai, siounde Eliel.

12. Attunde Johanan, níunde Elisabad.

13. Tíunde Jeremia, ellefte Machbanai.

14. Pesser voru af Gads børnum, høfud í hernum, sá hinn minnste yfer hundrade, enn sá ypparsti yfer þusund.

15. Pesser eru þeir sem geingu yfer Jordan í þeim fyrsta mánade, þá hún var full á báda backa, og þeir ráku á flótta alla þá, sem byggu í dalnum, bæde til austurs og vesturs.

16. Og þar komu einnenn af bornum Ben Jamins, og af Juda, til Davids slots.

17. Og David geck út til þeirra, svarade og sagde til þeirra: ef þer komed til mín med fride, og ad veita mer lid, þá skal mitt hiarta vera med ydur. Enn ef þer komed til ad vilia svikia mig til minna óvina, þó ad þar se eingenn mótgerd hiá mer, þá siáe Gud vorra forfedra þad, og straffe þad.

18. Enn andenn gaf sig í Amasai hofudsmann, á medal þriátíu. David, þíner erum ver, og ver holldum med þer, þú sonur Isai, fridur vere med þer. Fridur vere med þínum hiálpar mønnum! þviad þinn Gud hiálpar þer. Þá tók David þá til sín, og sette þá til høfudsmanna yfer strídsfólked.

19. Og af Manasse fellu til Davids, þá hann kom med Philisteis imót Saul í stríd, og hiálpade þeim eige. Þvi høfdingiar þeirra Philistinorum letu hann fara frá ser med ráde, og søgdu: ef hann fellur í lid med sínum herra Saul, þá má þad kosta vorn háls.

20. Þá hann nú fór til Ziklag þá fellu til hans af Manasse, Adna, Josabad, Jediael, Michael, Josabad, Elihu, Zilthai, høfdingiar yfer þusund í Manasse.

21. Og þesser hiálpudu David á móte strídsfólkenu, þvi þeir voru aller hiner sterkustu kappar, og urdu hershøfdingiar.

22. Og hvern dag komu nockrer til Davids, hønum til lids, þar til ad þar vard mikill her líka sem Guds her.

23. Þesse er talann á hershøfdingiunum utbúnum til stríds, sem komu til Davids í Hebron, ad snúa konungs rýke Sauls til hans, epter ordum Drottins.

24. Børn Juda, sem báru skiølldu og spiót, voru sex þúsund og átta hundrud, búner til stríds.

25. Simeons børn, hrauster kappar til hernadar, siø þúsund og hundrad.

26. Børn Levi, fiórar þusunder og sex hundrud,

27. Og sá høfdinge Jojada á medal þeirra af Aaron, med þremur þusundum og siø hundrudum.

28. Zadok hinn Unge, einn hrauster kappe, med sínu fødurs húse, tveir og tuttugu høfdingiar.

29. Benjamins børn, brædur Sauls, þriár þusunder, þviad allt til þess tíma helldu enn nu marger sig til húss Sauls.

30. Ephraims born tuttugu þusund og átta hundrud, sterker kappar og nafnfræger menn í sinna fedra húsum.

31. Sú hálf ætt af Manasse, átiau þusunder, sem nefnder voru á nafn, ad þeir kiæmu og gerdu David ad konge.

32. Isaschars børn, sem voru hyggner (menn) og rádløgdu hvad Israels fólk skyllde gera í serhverre tíd, tvø hundrud høfudsmenn, og aller þeirra brædur fylgdu þeirra ordum.

33. Af Sebulon, þeir sem í her fóru til stríds, búner med allrahanda vopnum, til bardaga, fimmtíu þusund, ad skicka ser eindrægelega í fylkingu.

34. Af Nephthali, þusund høfudsmenn, og siø og þriátíu þusunder, med þeim sem báru skiølldu og spiót

35. Af Dan, búner til bardaga, átta og tuttugu þusund og sex hundrud.

36. Af Asser, sem fóru útbúner í herinn til stríds, fiørutíu þusund.

37. Hinumeigenn Jordanar af þeim Rubenitum, Gaditum, og

su hálf Manasse ætt, med allshátt-
unum stríds vopnum, hundrad og
tuttugu þusunder.

38. Aller þesser strídsmenn, ad
nidur skicka herinn, komu af øllu
hiarta til Hebron, ad taka David
til kongs yfer allann Israel. Og
aller adrer í Israel høfdu eitt
hiarta, ad David være til kongs
tekinn.

39. Og þeir voru þar hiá David
í þriá daga, átu og drucku, þvi
þeirra brædur høfdu tilreidt þar
fyrer þeim.

40. Og þeir sem nærster þeim
voru þar i kring, allt til Isaschar,
Sebulon og Nephthali, þeir fluttu
braud á øsnum, ulfølldum, múlum
og uxum, til matar, miøl, fíkiur,
rusin, vín, oleum, uxa, saude,
yfergnæfanlega nóg, þvi føgnud-
ur var í Israel.

## 14. Capitule.

13. Cap. 1. Og David hellt ráð-
stefnu vid høfudsmennena, yfer
þusund, og yfer hundrad, og vid
alla høfdingiana.

2. Og sagde til alls Israels safn-
adar: ef þad þocknast ydur, og se
þad af Drottne Gude vorum, þá
látum oss senda út bod allstadar,
til annara vorra brædra, um allt
Israels land, og med þeim til pre-
stanna, og Levitanna í stødonum,
þar sem þeir hafa forstade, ad þeir
safnest saman til vor.

3. Og látum oss sækia vors Guds
ørk aptur til vor, þvi í Sauls tíd
hyrdtum ver eige um hana.

4. Þá sagde allur søfnudurenn:
ad menn skylldu so gera, þviad
þetta þocknadest øllu folkenu vel.

5. So safnade David saman
øllu Israels fólke fra Sihor Egyp-
talands, allt til mádur kemur til
Hemath, ad sækia Guds ørk frá
Kiriath Jearim,

6. Og David fór upp med øllum
Israel til Kiriath Jearim, sem
liggur í Juda (lande) til ad sækia
ørk Drottins Guds sem situr yfer
Cherubim, þar sem nafned verdur
ákallad.

7. Og þeir letu Guds ørk uppá
einn nyann vagn, og færdu hana
frá húse Abinadabs. Og Usa og Ahio
ráku vagnenn.

8. Og David og allt Israels fólk
lek fyrer Gude af øllu megne, med
saung, med hørpum, og psølltur-
um, med trumbum, med cymbalis,
og med basunum.

9. Enn sem þeir komu á Chidons
slettlende þá útrette Usa sína hønd,
ad hallda vid ørkenne, þvíad uxar-
ner geingu út á síduna.

10. Þá gramdest Drottins reide
yfer Usa, og sló hann, fyrer þad
hann útrette sína hønd til arkar-
ennar, so hann dó þar strax fyrer
Gude.

11. Þá vard David hriggur, ad
Drottinn gerde soddann skard á
Usa, og kallade hann stad Perez
Usa, allt til þessa dags.

12. Og á þeim sama dege ótt-
adest David Gud, og sagde: hvern-
enn má eg flytia Guds ørk til mín?

13. Og þvi let hann eige færa
Guds ørk til sín, í Davids stad,
helldur veik henne í burt í hús
Obed Edoms Githitha.

14. So var Guds ørk hiá Obed
Edom í hans húse í þriá mánude,
og Drottinn blessade hús Obed
Edoms, og allt hvad hann hafde.

## 15. Capitule.

14. Cap. 1. Og Hiram, kongur-
enn í Tyro, sende sendemenn til
Davids, og Cedrus vidu, múrmei-
stara, og tresmide, ad þeir skylldu
byggia hønum eitt hys,

2. Enn David merkte, ad Drott-
inn hafde stadfest hann til kongs

yfer Israel, þvi hans ríke hofst upp, søkum hans fólks Israels.

3. Og David tók ser enn fleyre kvinnur í Jerusalem, og gat enn fleyre syne og dætur.

4. Og þeir sem hønum fæddust í Jerusalem hetu so; Sammua, Sobab, Nathan, Salomon.

5. Jebehar, Elisua, Elpaleth.

6. Noga, Nepheg, Japhia.

7. Elisamma, BaelJada, og Eliphaleth.

8. Enn sem Philistei heyrdu þad, ad David var smurdur til kongs yfer allann Israel, fóru þeir aller upp ad sækia epter David. Enn sem David heyrde þad, fór hann út í móte þeim.

9. Og Philistei komu og útdreifdu ser nidur í Rehaims dal.

10. Enn David leitade ráds til Guds, og sagde: skal eg fara upp til móts vid Philisteos, og villt þú gefa þá í mína hønd? Drottinn sagde til hans; far upp, eg hefe gefed þá í þína hønd.

11. Og sem þeir fóru upp til Baal Prazim þá sló David þá þar, og David sagde: Gud hefir sundurdreift mínum óvinum fyrer mína hønd, so sem þá vøtn í sundurskiliast, þar af kølludu þeir þann sama stad Baal Prazim.

12. Og þar letu þeir epter sína afgude, enn David baud ad brenna þá upp med elldе.

13. Og Philistei søfnudust saman í annad sinn, og løgdu sig nidur í dalnum.

14. Og David spurde enn Gud -d. Og Gud sagde til hans: þú skallt eige fara upp til baka vid þá, helldur beygia þig fra þeim, so þu meiger komast ad þeim, þvert yfer frá morberiatriánum.

15. Og þegar þú heyrer ad þar þytur framm upp í morberiatriánum, far þá út til bardaga, þvíad Gud er þá útfarenn undann þer, ad slá her þeirra Philistinorum.

16. Og David gerde sem Gud baud hønum, og þeir slóu her Philistinorum fra Gibeon, ínn til Gaser.

17. Og Davids nafn vídfrægdest um øll lønd, og Drottinn let hans ótta koma yfer alla heidingia.

## 16. Capitule.

15. Cap. 1. Og hann byggde ser eitt hús í Davids stad, og hann tilreidde einn stad, þar ed Guds ørk skyllde standa, og tilreidde eina tialldbúd yfer henne.

2. Í þann tíma sagde David: eingenn skal bera Guds ørk nema Levitarner. Þvíad Drottinn útvalde þá til ad bera Drottins ørk, og ad þióna hønum æfenlega.

3. Og þvi safnade David øllum Israel til samans í Jerusalem, ad þeir skylldu flytia Drottins ørk upp til þess stadar, sem hann hafde henne tilreidt.

4. Og David samansafnade børnum Arons, og Levitunum.

5. Af Kahaths børnum, høfdingia Uriel, med hans brædrum, hundrad og tuttugu.

6. Af Merari børnum, Asaja høfdingia, med hans brædrum, tvø hundrud og tuttugu.

7. Af børnum Gersons, høfdingia Joel, med hans brædrum, hundrad og þriátiu.

8. Af børnum Elizaphans, høfdingia Semaja, med hans brædrum, tvø hundrud.

9. Af Hebrons børnum, høfdingia Eliel, med hans brædrum, áttatiu.

10. Af børnum Usiel, høfdingia Amminadab, med hans brædrum, hundrad og tolf.

11. Og David kallade Zadok og AbJathar kennemenn, og Levitana, sem voru, Uriel, Asaja, Joel, Semaja, Eliel og Amminadab,

12. Og sagde til þeirra: þer erud þeir yppurstu fedrannal á medal Levitanna, so helged ydur nú og ydra brædur, so þer færed Drottins Israels ydar Guds ørk upp híngad, í þann stad sem eg hefe tilreidt henne,

13. Því ádur, þá þer vorad eige nálæger, þá gerde Drottinn vor Gud eitt skard á medal vor, þvíad ver leitudum eige hans so sem oss bar.

14. So helgudu sig nú prestarner og Levitarner, ad þeir bæru Drottins Guds Israels ørk.

15. Og Levi børn báru Drottins Guds ørk á sínum ørlum, med støngunum þar á, so sem Moses hafde boded, epter orde Drottins.

16. Og David talade til þeirra yppurstu af Levitønum, ad þeir skylldu skicka sínum brædrum til saungara, med streingia hliodfærum, med psoltturum, hørpum, og cymbalum, ad þeir skylldu syngia hárre røddu, med glede.

17. Þá settu Levitarner til Heman, son Joels, og af hans brædrum, Assaph, son Berechia. Og af Merari børnum, þeirra brædrum, Etan, son Kusaja,

18. Og þeirra brædur med þeim, í þann annann part, sem var, Sacharia, Ben Jaesiel, Semiramoth, Jehiel, Unni, Eliab, Benaja, Maeseja, Mathitia, Elipheleja, Michneia, Obed Edom, og Jeiel, dyraverdi.

19. Þvíad Heman, Assaph, og Ethan, voru saungmenn, og hliómudu klárlega med kopar cymbalis.

20. Enn Sacharia, Asiel, Semiramoth, Jehiel, Unni, Eliab, Maeseja, og Benaja, med psolltурum, epter ad syngia.

21. Enn Mathithia, Elipheleja, Mikneja, Obed Edom, Jeiel, og Asasiá, med hørpur af átta streingium, ad syngia fyrer þeim.

22. Og Chenan Ja, sá Levitanna ypparste saungmeistare, ad hann skyllde kenna þeim ad syngia, þvi hann var hyggenn.

23. Og Berechia, og Elkana voru dyraverder fyrer ørkinne.

24. Enn Sachanja, Josaphat, Nethaneel, Amasai, Sacharia, Benaja, og Elieser prestar blesu í basunur fyrer Guds ørk, og Obed Edom og Jeheia voru dyraverder arkarennar.

25. So geck David og þeir enu elldstu í Israel, og høfdingiarner yfer þusund, upp, ad sækia sáttmáls ørk Drottins, úr húse Obed Edoms, med glede.

26. Og sem Gud hiálpade Levitønum, þeim sem báru Drottins sáttmáls ørk, þá offrudu menn sio uxum, og sio hrútum.

27. David var klæddur einum linkyrtle, og so aller Levitarner sem ørkena báru, og saungmennerner, og Chenanja saungmeistare, med saungmonnønum, David var og klæddur lin-líkkyrtle.

28. So flutte allur Israel Drottins sáttmáls ørk upp med glede, med basunum, trametum, og klárum cymbalum, psolltorum, og hørpum.

29. Enn sem Drottins sáttmáls ørk kom inn í Davids stad, þá leit Michol, dotter Sauls út um gluggann, og sem hún sá, ad David kongur dansade, og lek, þá fyrerleit hún hann í sínu hiarta.

## 17. Capitule.

16. Cap. 1. Enn sem þeir høfdu nú innfært Guds ørk, settu þeir hana í tiallbúdena, þá sem David hafde uppreist til hennar, og færdu brenneförner og þacklætis förner fyrer Gude.

2. Enn sem David hafde full komnad brenneoffred og þacklætis offred, þá blessade hann fólked í nafne Drottins.

3. Og hann útskipte serhverium manne í Israel, bæde ꝼørlum og konum, eitt braud, og eitt stycke af kiøte, og eina nyt víns.

4. Og hann sette nockra af Levitonum fyrer ørk Drottins, til ad þióna þar, ad prísa, þacka, og lofa Drottinn Gud Israels, sem var,

5. Assaph sá fyrste, annar Sacharia, Jeiel, Semiramoth, Jehiel, Mathithja, Eliab, Benaja, Obed Edom, og Jeiel, med psølltørum og hørpum, og Assaph med klárum cimbalis.

6. Og Benaja og Jehasiel prestar med trametum alltíd fyrer Drottins sáttmáls ørk.

7. A þeim tíma tilskickade David fyrst ad þacka Drottni, fyrer hønd Assaph, og hans brædra.

8. Packed Drottni, ákalled hans nafn, kunngjered hans gerninga medal fólksins.

9. Synged og spiled fyrer hønum. taled um øll hans dádsemdarverk.

10. Vegsamed hans heilaga nafn, þeirra hiørtu glede sig, sem leita ad Drottni.

11. Leited ad Drottne, og hans magt. Leited alltíd epter hans andlite.

12. Minnest á hans dádsemdar verk, sem hann hefir gert, á hans furduverk, og á hans ord.

13. Þer Israels hans þenara sæde, þer børn Jacobs, hans útvalder.

14. Hann er Drottinn vor Gud, hann er dómare yfer allre verølldenne.

15. Minnest æfenlega á hans sáttmála, hvad hann hefir lofad í þusund ætter.

16. Hvern hann gerde vid Abraham, og á hans eid vid Isaac.

17. Og hann sette þad Jacob til eins rettar, og Israel til eins eilífs sáttmála.

18. Og sagde: eg vil gefa þer Canaans land, hvart erfda hlutskipte.

19. Þá þeir voru fáer og litler, og útlender þar inne.

20. Og þeir fóru frá einu fólke til annars, og frá einu kongsríke til annars fólks.

21. Einganu mann let hann þeim skada gera, og hann straffade kongana fyrer þeirra skulld.

22. Komed eigi vid mína smurdu, og gered mínum spámønnum ecke illt.

23. Øll lønd synged Drottni, kunngered daglega hans hiálpræde

24. Frammteled hans dyrd medal heidingianna, og dádsemdarverk hans á medal fólksins.

25. Þvíad Drottinn er mikell og miøg loflegur, og dyrdlegur yfer alla adra Gude.

26. Þvi aller heidingianna guder eru skurgod, enn Drottinn gerde himenenn.

27. Þad stendur dyrdarlega og kostulega fyrer hønum, og geingur megtuglega og gledelega til í hans stad.

28. Þer þióder, færed Drottni híngad. Færed Drottni híngad heidur og magt.

29. Færed Drottins nafne vegsemd híngad, færed gáfur, og

komed fyrer hann, og tilbided Drottinn í heilagre prýde.

30. Øll verølldin óttist hann, hann tilreidde jørdena, ad hún skyllde eige hræraſt.

31. Himenenn gledi sig, og jørdenn fagne, og seige menn á medal heidingianna, ad Drottinn riker.

32. Hafed þióte upp, og hvad þar inne er, og landed gledi sig, og allt sem er á því.

33. Og láted øll tré gledia sig í skógenum fyrer Drottne, þvi hann kemur ad dæma jørdena.

34. Packed þer Drottne, þvi hann er gódur, og hans miskunseme varer ad eylífu.

35. Og seiged: hiálpa oss Gud vor frelsare, og samansafn oss, og frelsa oss frá heidingium, so ver mættum þacka þínu heilaga nafne, og þer lof seigia.

36. Lofadur se Drottinn Israelis Gud, frá eylífd til eylífdar, og allt fólked seige amen, og lofe Drottinn.

37. So let hann nú Assaph, og hans brædur, þar epter, hiá sáttmáls ørkenne Drottins, ad þióna fyrer ørkenne alltíd, hvern dag sitt dags verk.

38. Enn ObedEdom, og hans brædur, átta og sextíu, og ObedEdom, son Jedithuns, og Hossa, til dyraverda.

39. Og Zadok prest, og hans brædur prestana, let hann fyrer Drottins tialldbúd á hædena í Gibeon.

40. Ad þeir skylldu daglega offra Drottne brenneforner yfer brennefornar alltare, morgna og kvølld, og epter øllu þvi sem þar stendur skrifad í Drottinns løgmále, sem hann baud Israel.

41. Og Heman, og Jedithun med þeim, og þá adra útvalda, sem á nafn voru nefnder, til ad þacka Drottne, ad hans miskunsemi varer eylíflega.

42. Og Heman, og Jedithun med þeim, ád hlióma med trametum og cymbalis, og med Guds streingleikum, enn hann gerde børn Jedithuns til dyravardhallds manna.

43. Sídan fór állt fólk í burt, hver í sit húss. David snere og í burt, ad blessa sit hús.

## 18. Capitule.

17. Cap. 1. Pad skede þá David bió í sínu huse, ad hann sagde til Nathans spámanns: siá, eg bý í einu cedrus-vidar húse, enn Drottins sáttmáls ørk er under tialldþake.

2. Nathan sagde til Davids: allt hvad þer byr í hiarta, þad ger þú, þvi Gud er med þer.

3. Enn á þeirre sømu nóttu kom ord Drottins til Nathans, og sagde:

4. Far búrt og seig til míns þenara Davids: so seiger Drottinn, eigi skalltu mer hús til íbúdar byggia:

5. Því eg hefe eigi búed í nockru húse, frá þeim deige ad eg útleidde Israels børn, allt til þessa dags, helldur var eg þar sem tialldbúdenn og hybyled var.

6. Hvar sem eg hefe ferdast í øllum Israel, hef í eg og nockurn tíma talad til nockurs dómara í Israel, hverium eg baud ad fæda mitt fólk, og sagt: þvi bygged þer mer eigi eitt húss af cedrus vide?

7. Þá skaltu seig þú so til míns þenara Davids, so seiger Drottinn Zebaóth, eg tók þig úr haganum á bak vid sed, ad þú skyllder vera einn høfdinge yfer minu fólki Israel.

8. Og eg hefe vered med þer hvert sem þú hefir fared, og þína

óvine hef eg úpprætt fyrer þer, og eg hefe gert þer eitt nafn, so sem þeir enu stóru á Jordunne hafa nafn.

9. Og eg vil setia mínu fólke Israel stad, og eg vil planta þad, ad þeir búe þar, só þad hrærest eigi framar meir. Og þad vonda fólk skal eigi meir þryckia þad under, so sem ádur.

10. Frá þeim tíma, sem eg baud, ad þar skylldu vera domendur yfer minu fólke Israel: Eg vil nidurþryckia alla þína óvine, og seigia þer, ad Drottinn vill uppbyggia þer eitt húss.

11. Enn þegar þíner dagar eru úte, ad þú fer burt til þinna fedra, þá vil eg uppvekia þitt sæde epter þig, sem ad vera skal einn af þínum sonum, hans ríke vil eg stadfesta.

12. Hann skal byggia mer eitt hús, og eg vil stadfesta hans stól eylíflega.

13. Eg vil vera hans fader, og hann skal vera minn sonur. Og minne miskunseme vil eg eigi snúa frá hønum, so sem eg tók hana frá þeim sem ed var fyrer þig.

14. Helldur vil eg setia hann í mitt hús og í mitt ríke eylíflega, og hans stóll skal eylíflega stødugur standa.

15. Og þá Nathan hafde talad epter øllum þessum ordum, og þessare syn, vid David.

16. Þá kom David kongur og var fyrer Drottni, og sagde: hver em eg, Drottinn Gud? Og hvad er mitt hús, þad þú hefir flutt mig allt hingad?

17. O Gud! þad hefir þer þo þótt vera oflíted, helldur hefir þú talad yfer þíns þenara húse, um þad sem framm skal koma, laungu sídar. Og þú hefir álíted mig, so sem í eins manns mind, sem í hædinne er Gud Drottinn.

18. Hvad skal David nú meir seigia til þín, ad þú vegsamlegann gerer þinu þenara? Þú þecker þinn þión.

19. Drottinn! vegna þíns þións, epter þínu hiarta hefir þú gert alla þessa miklu hlute, ad þu villder opennbera alla dyrd.

20. Drottinn! eigi er þinn líke, og eingenn er Gud utann þú, epter øllu þui sem ver høfum heyrt med vorum eyrum.

21. Og hvar er nockurt fólk á jørdunne slíkt sem þitt fólk Israel? Ad einn Gud er farenn til ad endurleysa sier eitt fólk, og at gera ser siálfum eitt nafn af miklum og hrædelegum hlutum, ad burtdrífa heidingiana fyrer þínu fólke, hvert þú frelsader af Egyptalande?

22. Og gerder þer þitt fólk Israel til eins fólks, ad eylífu, og þú Drottinn ert ordenn þeirra Gud.

23. Nú Drottinn! þad ord sem þú talader yfer þínum þenara, og yfer hans húse, se þad æfennlega satt, og ger sem þú hefir sagt.

24. Og ad þitt nafn se satt og æfinnlega stórt, só menn meige seigia: Drottinn Zebaoth, Israels Gud, er Gud í Israel, og hús þíns þenara Davids verde stadfast fyrer þer.

25. Þvi þú Drottinn hefir opinnberad fyrer eyrum þíns þenara, ad þú viler byggia hønum eitt hús, þar fyrer hefir þinn þenare funded, ad hann tilbidur fyrer þer.

26. Nú Drottinn, þú ert Gud, og þetta hid góda hefir þú talad til þíns þenara.

27. Tak nú til ad blessa hús þíns þenara, so ad þad se æfennlega fyrer þer, þviad hvad þú blessar Drottinn, þad er blessad æfennlega.

## 19. Capitule.

18. Cap. 1. Epter þetta sló David Philisteos, og underlagde þá, og hann tók (borg) Gath, og hennar dotter, af hende Philistinorum.

2. Hann sló og þá Moabita, so ad Moabitar urdu David undergefner, og þeir færdu hønum giafer.

3. Hann sló og HadadEser, kongin af Zoba, í Hemath, þá hann fór ad uppsetia sitt teikn hiá vatnenu Phrath.

4. Og David vann þusund vagna frá hønum, og siø þusund riddara, og tuttugu þusund fótgøngulids. Og David leste alla þeirra vagna, enn hellt epter hundrad vøgnum.

5. Og þeir Syri af Damasco komu til lids vid HadadEser, kongenn af Zoba. Enn David sló af þeim sømu Syris tvær og tuttugu þusunder manna.

6. Og hann sette fólk í Damasco í Syria, so þeir Syri urdu David undergefner, og færdu hønum giafer, þviad Drottinn hiálpade David, hvert helst sem hann fór.

7. David tók og þá gullskiølldu sem HadedEsers þenarar høfdu, og flutte þá til Jerusalem.

8. David tók og af borgnm Hadad Esers, Tibehath, og Chun, miøg mikenn kopar, af hverium Salomon gerde þad koparhafed, stølpana, og þau koparkerenn.

9. Og sem kongurinn Thogu af Hemath heyrde þad, ad David hafde sleiged og nidurlagt alla magt kongsins Hadad Esers af Soba.

10. Þá sende hann sinn son Hadoram til Davids kongs og let heilsa hønum, og blessa hann, ad hann hafde barest vid Hadad Eser, og sigrad hann, þviad Thogu hafde átt strid vid HadadEser.

11. Og øll gullker, silfurker, og koparker, þau helgade David kongur Drottni med þoi silfre, og gulle, sem hann hafde teked frá heidingiunum, sem var frá Edomitum, Moabitum, Ammonitum, Philisteørum, og Amalechitum.

12. Og Abisai, sonur Zeruja, sló átian þusunder af Edomitum í sallt dalnum.

13. Og sette fólk í Edomea, so ad aller Edomitar vo:u David undergefner, þvi Drottinn hiálpadé David, hvert helst sem hann fór.

14. Svo rikte nu David yfer øllum Israel, og hellt dóm, og rettindum vid magt á medáll alls síns fólks.

15. Joab, sonur Zeruja, var hersh høfdinge. Josaphat, sonur Ahilud, var cantzeler.

16. Zadok, sonur Ahitobs, og Abimelech, sonur Abjathars, voru kennemenn. Savsa var ritare.

17. Benaja, sonur Jojada, var settur yfer Chreti, og Plethi, og fyrstu syner Davids voru hiá kongsins hende.

## 20. Capitule.

19. Cap. 1. Epter þetta andadest Nathas, Ammons barna kongur, og hans sonur vard kongur í hans stad.

2. Þá þeinkte David: eg vil veita miskun Hanon, syne Nahas, þvi hans fader veitte mer miskun. Og hann sende menn þangad, og let hugga hann, yfer sínum fødur. Og þá Davids þenarar komu í Ammons barna land, til Hanon, ad hugga hánn.

3. Þá søgdu Ammons barna høfdingiar til Hanon; hyggur þú ad David heidre þinn fødur fyrer þínum augum, ad hann sender huggendur til þín? ja, hans þen-

arar eru komner til þín, ad rannsaka, og umbillta, og ad niósna um landed.

4. Þá tók Hanon Davids þenara og rakade þá, og skar af þeim hálf klæbenn allt ad þióhnoppum, og let þá fara.

5. Og þar geingu bod af stad, til David um menninna. Og hann sende í móte þeim (því mennerner voru miøg lytter) og kongurenn sagde: vered í Jericho, þar til ydart skegg vex, epter þad komed aptur.

6. Og er børn Ammons sáu þad, ad þau luktudu illa fyrer David, þá sendu þeir, bæde Hanon og Ammons børn, þusund centener silfurs, ad leigia ser vagna og riddaralid, af Mesopotamia, af Maecha, og Zoba.

7. Og þeir leigdu tolf og tuttugu þusund vagna, og kong Maecha med sínu fólke. Þeir komu og settu herbúder hiá Medba. Og børn Ammons søfnudust og samann af þeirra borgum, og komu til bardagans.

8. Enn sem David spurde þetta: þá sende hann Joab med allann kappa herinn.

9. Og Ammons børn voru útfarenn, og fylktu lyde sínu til stríds, fyrer stadarportenu. Enn kongarner sem komner voru stadnæmdust serilage á vøllønum.

10. Þá Joab sá nú þad, ad hønum var buenn bardage bæde á bak og fyrer, útvalde hann alla yngstu menn af Israel, og fylkte lide sínu imóte þeim Syris.

11. Enn þad folk sem auk var sette hann under hønd síns bródurs Abisai, ad þeir tilbygge sig imóte Ammons børnum.

12. Og sagde: ef þeir Syri bera mig ófurlide, þá kom mer til hiálpar, enn ef Ammons børn verda þer sterkore, þá vil eg hiálpa þer.

13. Ver þú hughraustur, og lát oss gøra hughraustlega, vegna vors folks, og vors Guds stada. Drottinn gere hvad hønum þocknast.

14. Og Joab med því fólke sem var hiá hønum redest til bardaga imóte Syris, og þeir flydu fyrer hønum.

15. Og sem Ammons børn sáu, ad þeir af Syria flydu, þá helldu þeir og á flótta fyrer hans brodur Abisai, og fóru inn í borgena. Enn Joab kom til Jerusalem.

16. Sem þeir af Syria sáu, ad þeir voru slegner fyrer Israel, þá útsendu þeir bod, og letu sækia þá Syros, sem voru hinumeigenn vatnsins, og Sophach, strídshøfudsmadur Hadad Esers, var foringe þeirra.

17. Enn sem David var þad sagt, safnade hann saman øllum Israel, og fór yfer Jordan, enn sem hann kom til þeirra, þá bióst hann imót þeim. Og David redst til bardaga vid Syros, og þeir áttu orustu vid hann.

18. Enn Syri flydu fyrer Israel. Og David sló ihel af þeim Syris sio þusund vagna, og fiørutíu þusund fótgangandalids. Þarmed drap hann Sophach hershøfdingia.

19. Enn sem þenarar Hadad Esers sáu, ad þeir voru slegner af Israel, þá gerdu þeir frid vid David, og urdu hans þenarar. Og þeir Syri villdu eigi upp þadan veitá lid Ammons børnum.

## 21. Capitule.

20.Cap.1. Og þá áred var umlided, á þeim tíma sem kongarner plaga ad fara út (í hernad) þá færde Joab strídsherenn, og fordiarfade

land Ammons barna, kom og sett-est um Rabba, enn David var í Jerusalem. Og Joab sló Rabba, og braut hana nidur.

2. Og David tók þeirra kongs koronu af hans høfde, og fann hana ad vera eitt centener gulls þunga, og gimsteina í henne, og hún var sett á Davids høfud. Hann flutte og miked herfáng af borgenne.

3. Enn fólked, þad sem þar var inne, leidde hann út, og skipte þvi í sundur med søgum, og med járn-krókum, og sleggum. So gerde David vid allar borger Ammons barna. Og David fór med fólkenu aptur til Jerusalem.

4. Þar epter hófst eitt stríd i-móte Philisteunum í Gasar. Þann tíma sló Sibechai Husathiter Sibai, sem var af Risanna børnum, og niðurlægde þá.

5. Og þar hófst upp aptur eitt stríd á móte Philisteunum. Þá sló Elhanan, sonur Jairs, Lahemi, brodur Goliaths Gathiters, sem hafde eitt spiot so sem einn vefiar-rif.

6. Aptur vard bardage í Gath. Þar var einn stór madur, sem hafde sex fingur og sex tær, þad er ad tølu fiører og tuttugu, hann var og so fæddur af risunum.

7. Og hann hædde ad Jsrael, enn Jonathan, sonur Simeæ, brodurs sonur Davids, sló hann íhel.

8. Þesser voru komner af risunum í Gath, og fellu fyrer hende Davids og hans þenara.

## 22. Capitule.

21. Cap. 1. Og Satan mótstód Jsrael, og skaut David í hug, ad hann let telia Jsrael.

2. Og David sagde til Joab, og til høfdingianna folksins: fared og teled Jsrael, frá Berseba og allt til Dan, og færed mer, ad eg vite hversu marger þeir eru.

3. Og Joab sagde: Drottinn auke vid sitt folk, so sem þad nú er, hundradfallt so margt. Enn minn Herra kongur! eru þeir eigi aller míns Herra þenarar? hvar fyrer spyr þá minn Herra þar epter? þvi skal skulld koma á Jsrael.

4. Enn kongsins ord geingu framm imót Joab. Og Joab fór af stad, og reiste gegnum allann Jsrael, og kom til Jerusalem.

5. Og hann feck David manntal folksins, þess sem taled var. Og allur Jsrael var ellefusinnum hundrad þusund manns, sem sverd útdrogu. Og Juda fiorum hundradsinnum og siotíu þusunder manns, sem sverd útdrogu.

6. Enn Levi og Benjamin talde hann eigi med þessum, þviad Joab voru kongsins ord andstyggd.

7. Enn þetta mislíkade Gude, og hann sló Jsrael.

8. Og David sagde til Guds: eg hefe þunglega syndgast, ad eg gerde slíkt. Enn tak nú burt misgerning þíns þenara, þviad eg hefe gert hardla fávíslega.

9. Og Drottinn talade vid Gad, Davids siáanda, og sagde:

10. Far þú, tala vid David og seig: so seiger Drottinn, þriá hlute legg eg fyrer þig, kiós þú einn af þeim sem eg gere þer.

11. Og þá Gad kom til Davids, sagde hann til hans: so seiger Drottinn, kiós þer,

12. Annad hvert þriggia ára hallære, eda ad þú flyer þriá mánude fyrer þínum fiandmonnum, og fyrer sverde þinna óvina, ad þeir grípe þig, eda Drottins sverd og drepsott, í þriá daga í landenu, ad engell Drottins sláe íhel, í øll-

um Jsraels landamerkium. So siá nú til, hveriu eg skal svara þeim sem mig útsende.

13. David sagde til Gad: miøg þreyngest eg, enn þó vil eg falla í hønd Drottins, þviad hans miskun er miøg mikel, enn eige vil eg falla k mannanna hendur.

14. Þá let Drottinn drepsótt koma í Jsrael, só þar fellu siøtíu þusunder manna af Jsrael.

15. Og Gud sende engelenn til Jerúsalem, ad slá hana. Og þá hann var ad slá leit Drottinn til, og hann angradest yfer þvi enu vonda, og sagde til engelsins sem sló (fólked): þad er nóg, þín hønd láte af. Enn engell Drottins stód hiá lavagarde Arnans Jebusíta.

16. Og David upplypte sínum augum, og sá engel Drottins standa á millum himens og jardar, og hafde brugded sverd í sinne hende, og rette þad yfer Jerúsalem. Þá fell David, og þeir enu ellstu, klædder seckium, framm á þeirra andlit.

17. Og David sagde til Guds: hvert em eg ei sá sem baud ad telia fólked? eg em sá sem syndgadest, og gerde þad hid vonda, hvad hafa þesser sauder gert? Drottinn Gud minn, lát þína hønd vera ígegn mer og míns fødurs húse, enn eigi imóte þínu fólke ad plága þad.

18. Engellenn sagde til Gads: ad hann skyllde seigia David: ad David skyllde ganga upp, og reisa Drottne eitt alltare í lavagarde Arnans Jebusíta.

19. Og David geck upp epter orde Gads, sem hann sagde ti. hans í nafne Drottins.

20. Enn sem Arnan snerest vid, og sá engelinn, og hans fiorer syner med hønum, foru þeir ad fela sig, þviad Arnan var ad þreskia hveite,

21. Enn sem David geck til Arnan, sá Arnan og vard var vid David, hann geck út af lavagardenum, og laut David, med sínu andlite til jardar.

22. Og David sagde til Arnans: gef mer rúmrí lavagardenum, svo eg meige byggia alltare Drottne þar á, fyrer fulla peninga skalltu gefa mer þad, so ad plágunne meige linna af fólkenu.

23. Arnan sagde til Davids: tak til þín, og ger, minn Herra kongur, hvad þer þocknast. Siá! eg gef uxana til brenneoffurs, og okenn til vidar, og hveite til matoffurs, þad gef eg alltsamann,

24. David kongur sagde til Arnans: eigi so, helldur vil eg kaupa þetta fyrer fulla peninga. Þviad ei vil eg taka þad sem þer tilheyrer fyrer Drottne, og eg vil eige hafa þad gefins til brennefórnar.

25. So gaf David Arnan fyrer þad rúm sex hundrud sekel gulls ad vigt,

26. Og David reiste Drottni þar eitt alltare, og offrade brenneoffre og þacklætisoffre. Og sem hann ákallade Drottinn, þá bænheyrde hann hann af himne fyrer elldenn, yfer brenneoffursins alltare,

27. Og Drottinn sagde til engelsins, ad hann skyllde stinga sínu sverde í sínar slídrer.

28. A þeim sama tíma, þá David sá þad, ad Drottinn hafde bænheyrt hann, á þvi plátse Arnans Jebusíta, þá plagade hann ad fæara þar fórner.

29. Þviad Drottins tialldbúd sem Móses gerde í eydemørkenne, og þad brennefórnar alltared, var í þann tíma á hædenne í Gibeon.

30. Og gat David eigi fared þangad, ad spyria Gud, so var

hann hræddur ordenn fyrer sverde Drottins engels.

22. Cap. 1. Og David sagde: her skal Drottins Guds hús vera, og þetta alltared til brennefórna Israels.

## 23. Capitule.

2. Og David baud ad samansafna þeim útlendingum sem voru í Israels lande, þá skickade hann til steinhøggara, til ad høgga steina til Guds húss byggingar.

3. Og David let tilbúa miked járn til naglanna, til hurdanna í portunum, og til alls þess sem negla þurfte, og so mikenn kopar ad eige vard veigenn.

4. So og Cedrustre ótelianleg, þvíad þeir af Zidon og Tyro færdu David mikenn Cedrusvid.

5. Þá David þeinkte, minn sonur Salomon er barn, og litels máttar, enn húsed þad sem Drottne á ad byggiast skal vera stórt, so ad hans nafn, og dyrd, upphefiest í øllum løndum, þvi vil eg tilbúa þad sem hann þarf. So samansafnade David miklum efnum, ádur enn hann andadest.

6. Og hann kallade sinn son Salomon, og baud hønum ad byggia Drottins Israels Guds hús.

7. Og sagde til hans: minn sonur! eg hefe haft í sinne, ad byggia nafne Drottins míns Guds eitt hús.

8. Enn Drottins ord kom til mín, og sagde: þú hefir úthellt miklu blóde, og vered mikell bardaga madur, þar fyrer skalltu eigi byggia mínu nafne hús, þvíad þú hefir úthellt so miklu blóde á jørdina fyrer mer.

9. Siá! sá sonur sem þer skal fædast, hann skal vera kirrlátur madur, þvi eg læt hann hvílast fyrer øllum hans óvinum, allt umkring, þvi hann skal heita Salomon. Því eg vil gefa frid og ró yfer Israel um alla hans lífdaga.

10. Hann skal byggia mínu nafne hús. Hann skal vera minn sonur, og eg vil vera hans fader, og hans konunglegann stól vil eg stadfesta yfer Israel æfennlega.

11. So mun nú, minn sonur! Drottinn vera med þer, og þú munt vera luckusamur, so ad þú munt byggia Drottne þínum Gude eitt hús, sem hann hefir talad um þig.

12. Drottinn mun og so gefa þer hyggende, og skilning, og hann mun bifala þer Israel, ad þú halldi er Drottens Guds þíns løgmál.

13. Og þá munt þú vera luckusamur, nær þú helldur þig til ad gera epter þeim bodordum og rettindum, sem Drottinn baud Mose til Israel. Ver þú hraustur og hugdiarfur, óttast eigi, og ver þú óhræddur.

14. Siá þú! eg hefe í minne fátækt gefed til Drottins húss kostnadar hundrad þúsund centener gulls, og þúsundsinnum þúsund centener silfurs, þar med kopar, og járn án tølu, þvi þad er mer enn miked, og hefe og ætlad til steina og tre, þar máttu vid auka.

15. So og hefir þú marga verkmenn, steinhøggara, og tresmide til steina, og tres, og allsháttada hagleiksmenn á allrahanda erside.

16. Af gull, silfur, kopar, og járn, hvad ótelianlegt er. So tak þig nú upp, og fullkomna þetta, Drottinn mun vera med þer.

17. Og David baud øllum Israelis høfdingium, ad þeir skylldu hiálpa hans syne Salomone.

18. Er eige Drottinn ydar Gud med ydur, og hefir hann eige gefed ydur ró allt umkring? þvíad hann

hefir gefed landsins innbyggiara í ydrar hendur, og landed er unned under Drottinn, under hans folk.

19. So gefed nú ydar hiortu, og ydrar sáler, til þess, ad þer leited Drottins ydars Guds. Og taked ydur upp ad byggia Gude Drottne einn helgedom, at þar inn meige láta Drottins sáttmáls ørk, og Guds heilogu ker í húsed, hvert ed uppbyggia skal nafnenu Drottins.

23. Cap. 1. So setti nú David sinn son Salomon til kongs yfer Israel, þá hann var ordenn gamall, og vel alldradur.

## 24. Capitule.

2. Og David samansafnade øllum høfdingium Israel, og so prestunum, og Levitunum.

3. Og hann let telia Levitana, frá þrítugs alldre, og þar yfer. Og þeirra tala, høfud fyrer høfud, var átian og tuttugu þusunder hrausira manna.

4. Af þeim voru skickadar fiorar og tuttugu þusunder, ad frammkvæma verked í Drottins húse, og sex þusund embættis menn, og domarar.

5. Og fiórar þusunder dyravørdslu manna, og fiorar þusunder þeirra, sem lofa Drottinn á streingia hliódfære, sem eg hefe gert, til ad syngia lof.

6. Og David gerde eina skickun í millum Levi barna, sem voru á medal Gerson, Kahath, og Merari.

7. Gersonitar voru Laedan, og Simei,

8. Laedans børn sá fyrste, Jehiel, Sethan, og Joel, þeir þrír.

9. Enn børn Simei voru, Salomith, Hasiel, og Haran, þeir þrír, þesser voru þeir høfdingiar á medal fedranna af Laedan.

10. Og þesser voru, og so børn Simei, Jahath, Sina, Jeus, og Bria, þesser fiorer voru og Simei børn.

11. Og Jahath var sá fyrste, Sisa annar. Enn Jeus og Bria áttu eigi mørg børn, og þvi voru þeir reiknader fyrer eins fødurs hús.

12. Kahaths børn voru, Amram, Jezehar, Hebron, og Usiel, þeir fiórer.

13. Børn Amrams voru, Aaron, og Moses. Og Aaron vard fráskilenn, so ad hann var helgadur til þess allrahelgasta, hann og hans syner æfennlega, ad bera reykelse fyrer Drottenn, ad þióna, og ad blessa í Drottins nafne æfennlega.

14. Og børn Moses Guds manns voru reiknud í Levitanna ætt.

15. Og børn Mose voru, Gerson, og Elieser.

16. Børn Gersons, sá fyrste var Sebuel.

17. Børn Eliesers, sá fyrste var Rehabia. Og Elieser átte engenn ønnur børn. Enn børn Rehabia voru mørg fleyre.

18. Børn Jezehar voru, Salomith hinn fyrste.

19. Børn Hebrons voru, Jeria sá fyrste, Amaria annar, þridie Jehasiel, fiórde Jakmeam.

20. Børn Usiels voru, hinn fyrste Micha, og annar Jesia.

21. Børn Merai voru, Maheli, og Musi. Maheli børn voru, Eleasar, og Kis.

22. Eleasar dó, og hafde ecke afkvæme af sønum til, helldur dætur, og børn Kis, þeirra brædur, tóku þær.

23. Børn Musi voru, Maheli, Eder, og Jeremoth, þeir þrír.

24. Þetta eru børn Levi, medal þeirra fedra húss, og þeir yppurstu

á medal þeirra fedra, sem ad reikn-ader voru, epter nøfnum, høfud fyrer høfud, hverierad frømdu þiónustugerdena í Drottins húse, frá tuttugu árum, og þar yfer.

25. Þvi David sagde: Drottinn Israels Gud hefir gefed sínu fólke hvíld, og þad mun búa í Jerusalem æfennlega.

26. Og Levitarner þurfa eigi ad bera tialldbúdena, med øllum hennar embættis verkfærum.

27. Og Levi børn voru talenn epter seinustu Davids ordum, á medal Levitanna, frá tuttugu árum, og þar yfer.

28. Ad þeir skylldu standa under Arons barna høndum, til ad þióna Drottins húse, í gardenum, og ad kistunum, og til hreinsunar, og ad allsháttudum helgedome, ad allre þiónustugerd í Guds húse.

29. Ad skodunar braudum, ad similiu miølenu, ad matoffrenu, ad ósyrdum køkum, ad pønnum, og ristum, ad øllum vigtum, og mælerum.

30. Og ad standa á morgna, ad þacka, og lofa Drottinn, og eins á kvølldenn.

31. Og ad færa Drottne allar brennefórner, á þuottdøgum, nýmánudum, og hátídum, epter tølu, og skickan á allavega fyrer Drottne.

32. Og ad þeir skylldu hallda vaurd hiá samkundunnar og helgedomsins tialldbúd, og Arons børn þeirra brædur, ad þióna í húse Drottins.

## 25. Capitule.

24. Cap. 1. Enn þesse var skickan Arons barna. Arons børn voru, Nadab, Abihu, Eleasar, og Ithamar.

2. Enn Nadab, og Abihu dóu fyrr enn þeirra fader, og áttu eng-enn børn. Enn Eleasar, og Ithamar voru prestar.

3. Og David skickade þeim so, Zadok af børnum Eleasars, og Ahimelech af Ithamars børnum, epter þeirra tølu, og embætte.

4. Og þar voru fleyre ypparleger sterker menn fundner á millum Eleasars barna, enn á medal Ithamars barna. Og þá þeir skickudu þeim so, urdu sextan af Eleasars børnum til høfdingia setter í þeirra fedra húse, og átta af børnum Ithamars, á medal þeirra fedra húss.

5. Og þeir skickudu þeim epter hlutfalle, einum á móte ødrum, fyrer þvi, ad hverirtveggia, bæde af børnum Eleasars, og Ithamars, voru høfdingiar í helgedomenum, og ypparster fyrer Gude.

6. Og Semaja Ritare, sonur Nethaneel af Levitunum, hann skrifade þá upp fyrer kongenum, og þeim ypparstu, og fyrer prestenum Zadok, og fyrer Ahimelech, syne AbIathars, og fyrer þeim ypparstu fedrum á millum prestanna, og Levitanna, sem var, eins fødurs hús fyrer Eleasar, og þad annad fyrer Ithamar.

7. Enn sá fyrste hlutur fell yfer Joiarib, sá annar yfer Jedaia,

8. Þride yfer Harim, fiórde yfer Seorim.

9. Fimmte yfer Malchia, siøtte yfer Mejamin.

10. Siøunde yfer Hakoz, áttunde yfer Abja.

11. Níunde yfer Jesua, tíunde yfer Zechania.

12. Sá ellefte yfer Eliasib, sá tølfte yfer Jakin.

13. Þrettande yfer Hupa, fiortande yfer Jesebeab.

14. Fimmtande yfer Bilga, sextande yfer Immer.

15. Seitiande yfer Hesir, átiande yfer Hapizez.

16. Nitiande yfer Pethahja, tuttugaste yfer Jeheskel.

17. Fyrste og tuttugaste yfer Jachin, annar og tuttugaste yfer Samul.

18. Þride og tuttugaste yfer Dleaia, fiorde og tuttugaste yfer Maasia.

19. Þetta er þeirra skipan epter þeirra embætte, ad þeir gange í Drottins hús, epter sinne vísu, under þeirra fødur Aaron, so sem Drottinn Gud Jsraels hafde boded þeim.

20. Enn medal annara Levi barna var, á medal Amrams barna, Subael. A medal barna Subael var Jehdea.

21. Enn á medal barna Rehabia var Jesia só fyrste.

22. Enn af Jezeharitum var Slomoth, enn á mille barna Slomoths var Jahath.

23. Børn Hebrons voru, Jeria hinn fyrste, Amaria sá annar, Jahesiel sá þride, Jakmeam sá fiorde.

24. Usiels børn voru Micha, enn af børnum Micha var Samir.

25. Jesia var broder Michas. Medal barna Jesia var Sacharia.

26. Merari børn voru, Maheli, og Musi, hvers sonur ed var Jaesia.

27. Merari børn af Jaesia, hans sonur var Soham, Sacur, og Jbri.

28. Enn Maheli átte Eleasar, og hann átte enga syne.

29. Af Kis, Kis børn voru Jerahmeel.

30. Børn Musi voru Maheli, Eder, og Jeremoth. Þetta eru børn Levitanna í þeirra fedra húsum.

31. Og þeir køstudu hlutfalle móte brædrum sínum, Aarons børnum, fyrer David konge, og Zadok, og Achimelech, og fyrer þeim yppurstu fedrum á medal prestanna, og Levitanna, so vel, þeim minnsta broder, sem þeim ypparsta á medal fedranna.

## 26. Capitule.

25. Cap. 1. Og David, ásamt med hershøfdingiunum, fráskilde til embættanna á medal barna Assaphs, Heman og Jedithun, þá spámenn, med hørpur, psaltara og cymbalis, og þeir voru talder til gerningsins, epter sínu embætte.

2. A medal barna Assaphs var Sacur, Joseph, Nethania, Assarela. Assaphs børn, under Assaph sem spáde hiá kongenum.

3. Af Jedithun. Jedithuns børn voru Gedalia, Zori, Jesaia, Hasabia, Mathithia, þesser sex voru under þeirra fødur Jedithun, med hørpum, sem spádu, ad þacka og lofa Drottinn.

4. Af Heman. Børn Hemans voru, Bukia, Mathania, Usiel, Sebuel, Jeremoth, Hanania, Hanani, Eliatha, Gidalthi, Romamthi, Eser, Jasbekasa, Mallothi, Hothir, og Mahesioth.

5. Þesser aller voru Hemans børn, kongsins stáanda í Guds orde, ad upphefia horned, þviad Gud hafde gefed Heman fiortan syne og þriar dætur.

6. Þesser aller voru under þeirra fedrum, Assaph, Jedithun, og Heman, ad syngia í Drottins húse, med cymbalis, psalltarum, og hørpum, epter embættisgerdenne í húse Guds hiá kongenum.

7. Og þeirra tala og þeirra brædra sem voru meistarar, og lærdu í saung Drottins, voru tvø hundrud, átta og áttatíu.

8. Og þeir køstudu hlute um þeirra embætte, so fyrer þá hinu minnstu, sem fyrer þá hina hellstu,

fyrer þá hina lærdu, líka sem fyrer læresveinana.

9. Og hinn fyrste hlutur fell yfer Joseph á medal Assaph. Sá annar yfer Gedalia, og hans brædur og syne, og þeir voru tolf.

10. Enn þride yfer Sacur, og yfer hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

11. Enn fiorde yfer Jezri, og hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

12. Enn fimte yfer Nethania, og yfer hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

13. Enn siötte yfer Bukia, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

14. Enn siaunde yfer Isreela, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

15. Enn áttunde yfer Jesaia, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

16. Enn níunde yfer Mathania, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

17. Enn tíunde yfer Simei, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

18. Enn ellefte yfer Asareel, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

19. Enn tólfte yfer Hasabia, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

20. Enn þrettande yfer Subael, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

21. Enn fiortande yfer Mathithia, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

22. Enn fimmtande yfer Jeremoth, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

23. Enn sextande yfer Anania hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

24. Enn seltiande yfer Jasbekasa, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

25. Enn átiande yfer Hanani, hans syne og brædur, og þeir voru tolf

26. Enn nítiande yfer Mallothi, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

27. Enn tuttugaste yfer Eliatha, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

28 Enn fyrste og tuttugaste yfer Hothir, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

29. Enn annar og tuttugaste yfer Gidalthi, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

30. Enn þride og tuttugaste yfer Mahesioth, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

31. Enn fiorde og tuttugaste, yfer RomamthiEser, hans syne og brædur, og þeir voru tolf.

## 27. Capitule.

26. Cap. 1. Um skipan dyravardslu mannanna. A medal þeirra Korhiter, var Meselemia, sonur Kore, af börnum Assaphs.

2. Enn born Meselemia voru þesse, sá frumgetne, Sacharia, annar Jediael, þride Sebadia, fiorde Jathniel.

3. Fimmte Elam, siötte Johanan, og hinn siounde Elioenai.

4. Enn børn ObedEdoms voru þesse, sá frumgetne, Semaja, annar Josabad, þride Johah, fiorde Sachar, fimmte Nethaneel.

5. Siötte Ammiel, siounde Isaschar, áttunde Pegulthai, þvi Gud hafde blessad hann,

6. Og hans sonur Semaja gat sonu, hverer ad stiórnudu í sinna fedra húse, þvi þeir voru sterker kappar,

7. So voru þeir nú Semaja børn, Athni, Rephael, Obed, og Elsabad. hvørs brædur ad voru kostgæfner menn, Elihu og Samachja.

8. Þesser aller voru af børnum Obed Edoms, og þeir med þeirra sonum og brædrum voru kappsamer menn, velskickader til embættanna, þeir voru tveir og sextíu af Obed Edom.

9. Meselemia hafde átian børn og brædur, þeir voru kappsamer menn.

10. Enn Hossa, af børnum Merari, átte børn, þann ypparsta, Simri, enn þó hann være eigi frumgetinn, samt gerde fader hans hann til høfdingia.

11. Sá annar var Hilkia, þride Tebalia, fiorde Sacharia. Øll børn Hossa og hans brædur voru þrettan.

12. Þesse er skipan á dyravardhallds mønnunum á medal kappanna høfdingia, í embættenu, hiá þeirra brædrum, ad þióna í Drottins húse.

13. Og hlutkastenu var kastad so vel fyrer þann minnsta, sem þann stærsta, í þeirra fedra huse, til hverra portdyra.

14. Sá hlutur imót austre fell yfer Meselemia. Þar voru og køstud hlutkestenn fyrer hans son Sacharia, hver ed var miøg rádklókur, hønum hlotnadest í mót nordre.

15. Enn Obed Edom mót Sudre, og hans sonum hiá húse Esupim.

16. Og Supim og Hossa mót vestre, hiá porte þvi sem genged var upp brenneoffursins stræte, þar vakteun stód hver hiá annare.

17. Jmót austre voru sex af Levitunum. Mót nordre fiorer um daga, móte sudre fiorer um daga. Enn hiá Esupim voru alltíd tveir og tveir.

18. Hiá Parbar mót vestre fiórer á strætenu, og tveir hiá Parbar.

19. Þesse er skipan dyravardveitslu mannanna, medal barna þeirra Korhita, og barna Merari.

20. Enn af Levitunum var Ahia (settur) yfer fesiódu Guds húss, og yfer þá fesiódu sem helgader voru.

21. Af børnum Laedans, børnum Gersonita. Af Laedan voru fedranna høfdingiar, sem voru þeir Jehielither.

22. Og børn Jehielitanna voru Sethan, og hans broder Joel (setter) yfer fesiódu Drottins húss.

23. A medal Aramitanna, Jezharitanna, Hebronitanna, og Usielitanna,

24. Var Sebuel, sonur Gersons, sonar Mose, høfdinge yfer fiársiódunum.

25. Enn hans broder Elieser átte einn son, sem var Rehabja, hvers sonur var Jesaja, hvers sonur var Joram, hvers sonur var Sichri, hvers sonur var Selomith.

26. Sá same Selomith, og hans brædur, voru setter yfer allt þad helga liggiande fe, sem kongurinn David helgade, og þeir ypparstu fedur á medal høfdingiannna yfer þusund, og yfer hundrad, og hersthøfdingiarner.

27. Af stridenu og herfángenu høfdu þeir þad helgad, til þess, ad endurbæta Drottins hús med.

28. Og allt hvad Samuel siáande, og Saul, sonur Kis, og Abner, sonur Ners, og Joab, sonur Zeruja, høfdu heilagt gert, og allt þad sem helgad var, þad var under Selomith, og hans brædra hende.

29. Af Jezeharitum var Chenanja og hans syner skickader til

þienustu utann til yfer Israel em-bættismenn og domarar.

30. Af Hebronitum, var Hasabja og hans brædur, þusund og fio-hundrud merkeleger menn, stridad-er til embætta yfer Israel, þessum-meigenn Jordanar, mót vestre, til allshattadrar Drottins þiónustu, og ad þióna kongenum.

31. Item, á medal Hebronitanna var Jeria sá ypparste í Hebronita ætt, og þeirra fedra. Og á því fertugasta áre Davids kongs, þá var leitad, og fundner kostgæfner menn í Jaesar í Gilead.

32. Og þeirra brædur, merkeleger, ad tølu tvø þusund og fio hundrud, fedranna høfdingiar. Og David sette þá yfer Rubenita, og Gaddita, og hálfa Manasse ætt, til allra erenda Guds og kongsins.

## 28. Capitule.

27. Cap. 1. Enn Israels børn, epter þeirra tølu, voru fedranna høfdingiar yfer þusund og hundrad, og embættismenn, sem tóku vakt á kongenum, epter þeirra em-bætte, í sinne rød ad gánga til og frá hvern mánad á øllum mánudum ársins, og hver sveit hafdi fiorar og tuttugu þusunder manna.

2. Jasabeam, sonur Sabdiel, var settur yfer þá fyrstu sveit í þeim fyrsta mánade, og under hanum voru fiorer og tuttugu þusunder manns.

3. Af børnum Perez var sá høfdinge yfer øllum stridshøfdingium í þeim fyrsta mánade.

4. Dodai Ahohiter var settur yfer vørd þess annars mánadar, og Mikloth var høfdinge yfer hans verdi, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

5. Benaja, sonur Jojada prests, var høfdinge sveitar þess þridia mánadar, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

6. Hann er Benaja, sá kappenn á medal þriátíu, og yfer þriátíu, og hans skipan var under hans syne AmmiSabad.

7. Asael, broder Joabs, var sá fiorde í þeim fiorda mánade, og epter hann Sabadia hans sonur, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

8. Samehuth Jesrahiter var í þeim fimmta mánade, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

9. Ira, sonur Ikes Thekoita, var siötte, í þeim siötta mánade, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

10. Helez Peloniter, af børnum Ephraims, var sá siøunde, í þeim siøunda mánade, og í hans sveit voru fiorar og tuttugu þusunder.

11. Sibechai Husathiter, af Sarehiturum, var sá áttunde í þeim áttunda mánade, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

12. AbieserAnthothiter, af børnum Jemini, var sá níunde, í þeim níunda mánade, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

13. Maherai Nethophathiter, af Seraphitum, var sá tíunde í þeim tíunda mánade, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

14. Benaja Pirgathoniter, af børnum Ephraims, var sá ellefte í þeim ellefta mánade, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

15. Heldai Nethophathiter, af Athniel, var sá tolfte, í þeim tolfta

mánade, og under hans skipan voru fiorar og tuttugu Þusunder.

16. Enn Þesser voru yfer Israels ættum: á medal Rubenitanna var höfdinge Elieser, sonur Sichri, á medal Simeonita var Sephatia, sonur Maecha.

17. A medal Levitanna var Hasabia, sonur Kemuels. A medal Aaronita var Zadok.

18. A medal Juda var Elihu, af brædrum Davids. A medal Isaschar var Amri, sonur Michaels.

19. A medal Sebulon var Jesmaja, sonur Obadia. A medal Nephthali var Jeremoth, sonur Asriels.

20. A medal barna Ephraims var Hosea, sonur Asasia.

21. A mille hálfrar Manasse ættar var Joel, sonur Pedaja. Og enn á mille hálfrar Manasse ættar í Gilead, var Jeddo, sonur Sacharia. A medal Benjamin var Jaesiel, sonur Abner.

22. A medal Dan var Asareel, sonur Jerohams. Þesser eru höfdingiar Israelis ætta.

23. Enn David reiknade Þá eigi í töluna, sem voru tuttugu ára, og Þar fyrer innann, Þviad Drottinn hafde mællt, ad margfallda Israel so sem stiörnur á himnum.

24. Enn Joab, sonur Zeruja, hafde teked til ad telia, enn fullkomnade Þad Þó eigi, Þviad reidenn kom yfer Israel Þar fyrer, og Þvi kom eigi talann í Davids kongs Chronicu.

25. Asmaveth, sonur Adiels, var settur yfer kóngsins fehyrdslur. Og Jonathan, sonur Usia, var yfer Þeim fesiódum, sem voru í landenu, í stödunum, í kauptúnunum, og köstulunum.

26. Esri, sonur Kelubs, var yfer settur akuryrkin menniena, ad eria landed.

27. Simei Ramathiter var yfer víngaurdunum. Sabdi Siphiniter var yfer vínkiöllurum, og vínsins liggiande fe.

28. Baal Hanan Gaderiter var yfer vidsmiörsvidar gerdum, og yfer Morbertriánum í dalnum, Joas var yfer oliuvidsmiörs skattenum.

29. Sitari Saroniter var yfer Haga Urum sem gengu í Saron. Enn Saphat, sonur Adlai, var yfer uxunum, sem gengu á láglendenu.

30. Obil Ismaeliter var yfer Camelunum, enn Jehedia Meronothiter var yfer ösnunum.

31. Jasis Hagariter var yfer saudunum. Þesser aller voru höfdingiar yfer Davids kongs gotse.

32. Enn Jonathan, födurbroder Davids, hann var rádgiafe, og hofmeistare, og Canzlari. Og Jebiel, sonur Hachmoni, var hiá börnum kongsins.

33. Achitophel var og kongsins rádgiafe. Husai Arachiter var kongsins vinur.

34. Epter Achitophel var Jojada, sonur Benaja, og AbJathar. Enn Joab var kongsins hershöfdinge.

## 29. Capitule.

28. Cap. 1. Og David samankallade til Jerusalem alla Þá ædstu af Israel, sem voru höfdingiar kynkvíslanna, og höfdingiar yfer Þeim rödum, sem Þiónudu kongenum, höfdingiana yfer Þusund, og yfer hundrad, höfdingiana yfer kongsins og hans sona gotse, og fe, med herbergia sveinunum, strídsmönnunum, og öllum enum bestu mönnum.

2. Og David kongur stód á sín=

ar fætur, og sagde. Heyred mig, míner brædur, og mitt folk. Eg hefe haft í sinne ad byggia eitt hús (í hveru ad Drottins sáttmáls ørk skyllde hvílast) og eina fótskør vors Guds, og eg hafde gert mig reidubúenn til ad byggia.

3. Enn Gud let seigia mer: eigi skalltu byggia mínu nafne hús, þviad þú ert bárdagamadur, og hefir úthellt blóde.

4. Nú hefir Drottinn Israelis Gud útvaled mig, af øllu húse míns føđurs, ad eg skylde vera kongur yfer Israel æfinnlega. Þvi hann útvalde Juda til hofdingiadøms, og í húse Juda míns føđurs hús, og á medal míns føđurs barna hafde hann þocknan á mer, ad hann sette mig til kongs yfer allann Israel.

5. Og á medal allra minna sona, (þviad Drottinn hefir gefed mer marga syni,) þá hefir hann útvaled Salomon minn son, ad hann skule sitia á kongsríkis stolnum Drottins yfer Israel.

6. Og hann hefir talad til mín: þinn sonur Salomon skal mitt hús byggia, og minn gard, þviad eg hefe útvaled mer hann til sonar, og eg vil vera hans fader.

7. Og hans kongsríke vil eg stadfesta æfennlega, ef hann er stadfastur, ad hann breite epter mínum bodordum, og rettindum, so sem á þennann dag.

8. Nú fyrer øllum Israel, Drottins søfnude, og ad áheyrande Gude vorum, þá halled og uppfyllred øll Drottins ydars Guds bodord, so þer meiged eignast þad góda land, og láta þad ydrum børnum til erfdar, epter ydur, æfennlega.

9. Og þú, minn sonur Salomon, þeckia skal þú þíns føđurs Gud, og þióna honum af øllu hiarta, og med einnre viliugre sálu. Þviad Drottinn rannsakar allra hiørtu, og underskendur alla dicktan þanka anna. Ef þú leitar hans, þá munþu finna hann, enn ef þú yfergefur hann, þá mun hann burtvarpa þer æfennlega.

10. Siá nú þvi til, þviad Drottinn hefir útvaled þig, ad þú skuler byggia eitt hús til helgedómsins, ver þú hughraustur, og ger þad.

11. Og David gaf Salomone sínum syne eina fyrermind, hvernenn smída skyllde forhúsed, og hans hús, og herbergenn, og saleun, og svefnhusenn innann til, og nádarstóls húsed.

12. Þar med eina fyrermindan uppá allt þad sem hann hafde hiá siálfum ser í sínu sinne, og þaunkum, sem var, á Drottins húss garde, og á øllum herbergium þar umkring, og á þvi liggiande fe, í Guds húse, og á helgedómsins fesiódum.

13. A prestanna og Levitanna skipan, og á allre embættis þiónustugerd í Drottins húse.

14. Gulled epter vigt, til gulls, til allshattadra kera í hveru embætte, og allrahanda silfur verkfære, epter vigt, til allrahanda kera, til serhvers embættis.

15. Og gull til gullegra liosastiaka, og til gullegra lampa, hverum liosastiaka, og hans lampa sína vigt. Hann gaf og so silfur, til silfur liosastikna, og þeirra lampa, epter hverrar liosastiku embætte.

16. Hann gaf og gull til skodunarbraudsins bords, til hvers bords sína vigt, so og líka silfur til silfurbordanna. Klárt gull til krókanna, munnlauganna, og kannanna.

17. Og til gullbikara, hverum bikar sína vigt, og til silfur bikaranna, hverum bikar sína vigt.

18. Og til reykelsis alltaresins

þad allra kláraſta gull í ſinne vigt, og eina mind þeſs gullega Cherubims vagns, ad þeir útbreiddu ſig, og huldu ſáttmáls ørkena Drottins.

19. Allt þetta var mer gefed, ſkrifad af hende Drottins, ad underviſá mer allt verk fyrermindarinnar.

20. Og David ſagde til ſíns ſonar Salomons, vert þú hughrauſtur, og haf frímódugt ged, og ger þetta, óttaſt eigi, og ver eigi efaſamur, Gud Drottinn, minn Gud, mun vera med þer, og hann mun eigi taka ſína hønd frá þer, og eige helldur yfergefa þig, þar til ad þú hefir fullkomnad allann gerning til þiónuſtugerdar í Drottins húſe.

21. Siá þar, preſtanna og Levitanna ſkipaner, til alls embættes í Guds húſe, eru med þer, til allra gerninga, og þeir eru reidubuner, og víſer til allra embættanna, ſo og høfdingiarner og allt fólked til allrar þinnar hønd lunar.

## 30. Capitule.

29. Cap. 1. Og David kongur ſagde til alls ſafnadarins: Gud hefir útvaled Salomon, einn af mínum ſonum, ſem enn nú er bæde ungur og lítell, enn gerningurenn er ſtor, þviad þetta er eigi eins manns heimele, helldur Guds Drottins.

2. Enn eg hefe af øllu mínu megne tillagt til Guds húſs, gull til gullegra kera, ſilfur, til ſilfurkera, kopar til koparkera, járn til járnſmídis, tre til treſmídis, onyxſteina, greypta rubinſteina, og miſlita ſteina, og allrahanda dyrmæta ſteina, og marga marmaraſteina.

3. Ad auk þeſſa hefi eg gefed, af mínu eigenn gotſe, (af því eg hefe ſtora velþocknan á míns Guds húſe,) gull og ſilfur til Guds heilaga húſs. Auk alls þeſs ſem eg hefe til ætlad.

4. Þríu þuſund centener gulls af ophir, og ſiø þuſund centener klárt ſilfur, til ad fódra med húſſens vegge.

5. So ad þar ſe gull ſem gull ſkal vera, þar ſilfur ſem ſilfur ſkal vera, og til alls háttads gernings, fyrer verkmeiſtaranna hendur. Og hver er nú velvilugur til ad fylla ſína hønd í dag fyrer Drottne?

6. Þá voru fedranna høfdingiar, og Iſraels ættar høfdingiar, og høfdingiar yfer þuſund, og yfer hundrad; og ſo høfdingiar yfer kongſins bifalningum, velviluger,

7. Og gáfu til embætteſins, í Guds húſe, fimm þuſund centener gulls, og tíu þuſund gyllene, og tíu þuſund centener ſilfurs, átian þuſund centener kopars, og hundrad þuſund centener járns.

8. Og hiá hverum hellſt ſem ſteinar urdu fundner, þá gáfu þeir þá til Guds Drottins ſiárſióda, under Jehiel Gerſoniters hønd.

9. Og fólked var fagnande, ad þeir voru ſo ſiálfviluger, þvi þeir gáfu Drottne, af øllu hiarta ſiálfviluger. Og David kongur gladde ſig og ſo mikelega,

10. Og lofade Gud, og ſagde fyrer øllum almúganum: lofadur ſe þú Drottinn Iſraels, vorra fedra Gud! æfenlega.

11. Þer ber vellded og magtenn, dyrdenn, ſigur, og þackargerd. Því allt þad ſem er á himne og jørdu þad er þitt, ríked er þitt, og þú ert upphafenn yfer alla til yferhøfdingia.

12. Audæfenn og dyrdenn eru fyrer þer. Þú ſtiórnar yfer øllum

hlutum, magt og styrkur er í þinne hende, það stendur í þinne hende, að gera sérhvern mann mikenn og sterkann.

13. Nú, vor Guð! ver þøckum þer, og gøfgum þitt dyrdarennar nafn,

14. Þvi hvað em eg? hvað er mitt folk, að ver skyllldum hafa magt til velviluglega að gefa, sem nú skeð? þvíað það er allt komeð af þer, og af þinne hende høfum ver það gefið þer.

15. Þvíað ver erum gester og framande fyrer þer, líka sem aller vorer forfedur. Vort líf á jørdunne er líka sem skugge, og þar er engenn dvøl.

16. Drottinn vor Guð! øll þesse gnogt sem ver høfum tilbúeð að byggia þer með eitt hús, til þíns heilaga nafns, það er komeð af þinne hende, og það er alltsaman þitt.

17. Minn Guð! eg veit að þú rannsakar øll hiørtu, og elskar rettvísena, þvi hefi eg af einu einføldu hiarta gefið þer þetta viluglega, og með glede hefi eg nu seð þitt folk það sem nú er her, að það hefir gefið þer siálfviluglega.

18. Drottinn vorra fedra, Abrahams, Isaacs, og Israels Guð, varðveittu æfinlega líkt sinne og þancka í hiarta þíns folks, og tilreið þú þeirra hiørtu til þín.

19. Og gef mínum syne Salomone eitt algert hiarta, að hann hallde þín boð, þinn vitnisburð, og þín rettinde, að gera það allt saman, og að byggia þetta hús sem eg hefe tilsett.

20. Og David sagðe til alls almúgans: lofeð Drottinn yðarn Guð. Og allur søfnudurenn lofaðe Drottinn Guð sinna fedra, þeir hneigðu sig og tilbáðu Drottinn, og konginn.

21. Og þeir færdu Drottne fórner. Og að øðrum morgne offrudu þeir brenneförn, þúsund uxum, þúsund saudum, þúsund lømbum, með þeirra dryckiaroffre, og mørgum offrum fyrer allann Israel.

22. Og átu og drucku, með storum fagnaðe, þann sama dag fyrer Drottne. Og þeir gerðu Salomon, son Davids, til kongs, í annað sinn, og smurðu hann Drottne til eins høfdingia, og Zadok til kennemanns.

23. So sat Salomon í Drottins hásæte, einn kongur í síns føðurs Davids stað, og varð luckusamur.

24. Og allur Israel var hønum hlyðiun. Og aller høfdingiarner, og þeir enu vollduguſtu, og øll børn Davids kongs gáfu sig under Salomon kong.

25. Og Drottinn gerde Salomon meir og meir ypparlegann fyrer øllum Israel, og gaf hønum eitt løflegt kongsríke, hvilíkt að engenn fyrer hann hafðe haft í Israel.

26. So var nú David, sonur Isai, kongur yfer aullum Israel,

27. Enn sá tíme sem hann var kongur yfer Israel, er fiorutíu ár. Hann ríkte siø ár í Hebron, og þrettan ár og tuttugu í Jerusalem,

28. Og andaðist í góðre elle saddur af lífdøgum, ríkdóme og æru. Og Salomon hans sonur, varð kongur í hans stað,

29. Enn Davids kongs gerningar, bæðe þeir fyrstu og síðurstu, siá! þeir eru skrifaðer í gerningum Samuels siáanda, og á meðal gerninga Nathans spámanns, og

á medal gerninga Gads þess fiáanda,

30. Med øllu hans kongsríke, magt og tímum, sem frammlidu yfer hønum, og yfer Israel, og øllum konga ríkum í løndunum.

Ender á þeirre fyrstu Chronicu Bókenne.

# Su aunnur Chronicu Bókenn.

## 1. Capitule.

1. Og Salomon, sonur Davids, stirkteſt í sínu ríke, og Drottinn hans Gud var med hønum, og miklade hann meir og meir.

2. Og Salomon talade vid allann Israel, vid høfudsmennena yfer þusund og hundrad, vid domendur, og alla høfdingia í Israel, vid þá ædstu fedur,

3. Ad þeir fære af stad, Salomon, og allur mannsøfnuduren med hønum, til þeirrar hædar sem var í Gibeon, þvi þar var Guds samfundu tialldbúd, hvera Moses Guds þenare hafde gert í eydemørku.

4. Þvi David hafde flutt Guds ørk upp frá Kiriath Jearim, þangad sem hann hafde búed um hana, þvi hann hafde uppreist eina tialldbúd til hennar, í Jerusalem.

5. Enn þad kopar-alltare sem Bezaleel, sonur Uri, sonar Hur, gert hafde, þad var þar fyrer tialldbúd Drottins, og Salomon, og allur søfnudurenn var vanur ad sækia þangad.

6. Og Salomon offrade á þvi kopar-alltare fyrer Drottne, sem stód fyrer samkundu tialldbúdenne, þusund brennefórnum.

7. Á þeirre sømu nóttu birteſt Gud Salomone, og sagde til hans: bid þú, hvad skal eg gefa þer?

8. Salomon sagde til Guds: þú hefir veitt mikla miskun mínum fødur David, og þú hefir sett mig til kongs í hans stad.

9. So lát nú, Drottinn! þín ord sønn verda til míns fødurs Davids. Þvi þú hefir sett mig til kongs yfer einu fólke, sem so margt er líka sem dupt á jørdu.

10. So gef mer nú þar fyrer vitsku og skilning, so eg kunne ad ganga út og inn fyrer þessu fólke. Þvi hver kann ad dæma þetta þitt hid mikla folk?

11. Þá sagde Gud til Salomons: søkum þess, ad þú hefir þetta í sinne, og þú badst eigi um ríkdom, eigi helldur um audæfe, edur dyrd, edur um sáler þinna óvina, edur um langa lífdaga, helldur badst þú um vitsku og skilning, so þú meiger dæma mitt folk, yfer hvert eg hefe sett þig til eins kongs.

12. So se þer gefenn vitska og skilningur; þar til med vil eg gefa þer ríkdom, audæfe og dyrd, ad þinn líke skal eige vered hafa á medal konganna fyrer þig, og eigi helldur mun vera epter þig.

13. So kom Salomon frá þeirre hæd sem var í Gibeon, til Jerusalem, frá samfundu tialldbúdenne, og ríkte yfer Israel.

14. Og Salomon safnade ser vøgnum og riddurum, so ad hann feck þusund og fiøgur hundrud vagna, og tolf þusund riddara, og let

þá vera í vagnastødunum, og hiá kongenum í Jerusalem.

15. Og kongurenn gerde so miked gull og silfur í Jerusalem, sem steina, og cedrusvid so sem morbertre í dalnum.

16. Og Salomon konge flutt= ust hestar af Egyptalande, og alls= háttud vara. Og kongsins kaup= menn keyptu þessa vøru.

17. Og flúttu hans út af Ægyptalande, já, einn vagn fyrer sexhundrud silfurpeninga, einn hest fyrer hundrad og fimmtíu. So færdu þeir og til allra Hetkiters konga, og til konganna í Syria.

## 2. Capitule.

1. Og Salomon ásette ser ad byggia Drottins nafne eitt hús, og sinu kongsríke eitt hús.

2. Og hann aftalde siøtíu þus= und manna, til ad bera byrder, og áttatíu þusund tresmida, á fiall= enu, og þríu þusund og sex hund= rud tilsiónar menn yfer þá.

3. Og Salomon sende til Hí= ram, kongsins í Tyro, og let seigia honum: líka sem þú gerder vid mínn fødur David, og þú sender honum cedrusvidu, ad byggia ser eitt hús, í hveru hann bió,

4. Siá! eg vil byggia Drottins míns Guds nafne eitt hús, hvert ed honum skal helgad verda, ad gera fyrer honum þar í godt reyk= verk, og alltíd skodunar braudenn ad tilreida, og brenneoffur á morg= na og kvølld, á sabbathsdøgum, á tunglkomu hátídum, og á Drott= ins vors Guds hátídum æfennlega fyrer Israel.

5. Og þad hús, sem eg vil byg= gia, skal vera stórt, þviad vor Gud er stærre enn aller Guder.

6. Ennhver mun þad megna, ad byggia honum hús? þviad himen= enn og aller himnanna himnar ta= ka hann eigi, hver em eg þá, ad eg skyllde honum byggia eitt hús? helldur til þess, ad brenna fyrer honum reykelse.

7. Þar fyrer send mer nú einn hyggenn mann til ad erfida í gulli, silfri, kopar, járni, skarlati, pur= pura, gulu silke, og þann sem kann ad útgrafa, med þeim enn høgu sem her eru hiá mer í Juda og Je= rusalem, hverá minn fader David hefir tilfeinged.

8. Og send mer cedrustre, gre= nevid og hebentre af Libanon. Þvi eg veit ad þíner þenarar kunna ad høgga tre á Libanon. Og siá, míner þenarar skulu vera med þín= um þenurum,

9. Ad þeir kunne ad tilbúa mer marga vidu, þviad þad húsid, sem eg vil byggia, skal vera miked og serlegt.

10. Og siá, eg vil gefa tresmid= unum þínum þenurum, sem ad tren høgga, tuttugu þusund coros af knusudu hveite, og tuttugu þusund coros byggs, og tuttugu þusund bath víns, og tuttugu þusund bath af vidsmiøre.

11. Þá svarade Hiram, kongs= ur af Tyro skriftliga, og sende til Salomons: fyrer þvi ad Drottenn elskar sitt folk, þá hefir hann sett þig til kongs yfer þad.

12. Og Hiram sagde enn fram= ar: lofadur se Drottenn Israelis Gud, hver ed skapad hefir himen og jørd, ad hann gaf David konge einn vísann, hyggenn og forstand= ugann son, hver byggia skal Drottne eitt hús, og sínu kongsrí= ke eitt hús.

13. So sende eg nú einn vísann mann, hver ad hefir forstand, og hefir vered hiá mínum fødur Hy= ram.

14. Hver ad er einnrar kvinnu sonur af dætrum Dans, og hans fader var af Tyro. Hann kann smída gull, silfur, kopar, járn, tre, skarlat, gult silke, lin, purpura, og ad útgrafa allrahanda, og kunstugliga ad gera alt, hvad sem madur setur honum fyrer, med þín um hagleiksmonnum, og kongs Davids, míns herra þíns føðurs hagleiksmonnum.

15. So sende nú minn herra hveite, bygg, vidsmiør, og vín til sinna þenara, so sem hann hefir sagt.

16. So vilum ver høgga tre á Libanon, so mørg sem þorf gerest, og ver vilum færa þau á sió í flota til Japho, enn þar frá máttu flytia þau upp til Jerusalem.

17. Og Salomon talde alla framande menn í Israels lande, epter þeirre tolu sem David hans fader hafde taled þá, og þar fundust hundrad og fimmtíu þusunder, þríu þusund, og sex hundrud.

18. Og hann skickade siøtíu þusund af þeim til ad bera byrder, og áttatíu þusund til ad høgga á fiallinu, og þríar þusunder, og sex hundrud sette hann til verksliora, ad hallda fólkenu til þiónustu.

## 3. Capitule.

1. Og Salomon tók til ad byggia Drottins hús í Jerusalem, á fiallenu Moria, þar sem David hans fødur var til vísad, hvert ed David hafde tilbúed til stadar á Arnans Jebusíta plátse.

2. Hann hóf ad byggia annann dag í þeim ødrum mánade, á fiórda áre síns ríkes.

3. Og Salomon lagde so grundvøllenn til ad byggia Guds hús, í fyrstu leingdena sextíu álna, og breiddena tuttugu álna.

4. Og forhúsed, framan vid breiddena á húsenu, var tuttugu álna langt. Enn hædenn var hundrad tuttugu alna, og bió þad innann af klaru gulle.

5. Enn þad stóra hús þiliade hann med grenetre, og bió þad yfer med þuí besta gulle, og gerde þar uppá palmavid, og kediu verk.

6. Og hann sette í húsed gimsteina til prýde. Og gulled var Parvaims gull.

7. Og hann sló bitana, og dyrastólpana, veggena, og dyrnar med gulli, og hann let utskera Cherubim á veggiunum.

8. Hann gerde og hús þess allra helgasta, hvers leingd ed var tuttugu álna, epter húsſens breidd, þess vídd var og tuttugu álna; og bió þad med þuí allra besta gulli, nær sex hundrud centener gulls.

9. Enn til Saums feck hann þeim tuttugu siklos gulls ad vigt, hann sló og so salenn med gulli.

10. Hann gerde og í húse þess allrahelgasta tvo cherubim útskorna, og yferþackte þá med gulli.

11. Enn leingdenn vængianna á cherubim var tutugu álner, so einn vængur var fimm álner, og tók ad húsveggnum, og sá annar vængur var fimm álna, og tók ad hinum ødrum Cherubs vængnum.

12. So hafde og sá annar Cherub einn væng fimm alna langann, og tók ad húsſens vegg, og hans annar vængur einnenn fimm álna langur, og kom vid vængenn á ødrum Cherub.

13. So ad þesser vænger Cherubims voru útbreidder tuttugu álna breidd, og þeir stódu á sínum fótum, og þeirra andlit sneru inn í húsed.

14. Og hann gerde eitt fortiallld af gulu verke, skarlate, purpura,

og línverke, og gerde Cherubim þar á.

15. Hann gérde og tvo stólpa fyrer húsenu/ fimmtan og tuttugu álna ad hæd, og knappa þar ófann á fimm álna.

16. Hann gerde og hleckiaverk til kórsins, og feste þad ófann á stólpana, og hann gerde hundrad granata eple, og feste þau á kediuverked.

17. Og hann uppreiste stolpana fyrer framan musfered, þann annann hægrameigenn, enn þann annann vinstrameigenn, og kallade þann sem hægrameigenn var, Jachin, enn þann sem var til vinstre handar, Boas.

## 4. Capitulé.

1. Hann gerde og eitt koparalltare, tuttugu álna langt og breidt, og tíu álna hátt.

2. Hann gerde og eitt steypt haf, tíu álna vídt, frá einum barme til þess annars, allt umkring, og fimm álna hátt: og ein mælesnúra þriátíu álna laung kunne ad ná yfer um þad allt umkring.

3. Og þar voru uxa minder under því umkring, og þar voru tvær rader med knauppum í kringum hafed (hvert ed var tíu álna vídt) sem voru steypter med því.

4. Og þad stód so á tolf uxum, so ad þremur var snúed til nordurs, og þremur til vesturs, og þremur til sudurs, og þremur til austurs, og hafed ofann á þeim, og allur þeirra bakhlutur, snere inn.

5. Þess þyckt var þver handar, og barmurenn var so sem Bikars barmur, og blomstur á einnre liliu, og í þad geck þríu þusund Bath.

6. Og hann gerde tíu katla, og sette fimm af þeim hægrameigenn, og fimm vinstrameigenn, ad í þeim skyllde þvo allt þad sem brennifórnunum tilheyrde, ad þeir dyfdu því þar í. Enn hafed til þess, ad prestarner skylldu þvo sig þar í.

7. Hann gerde og tíu liosastikur af gulle, so sem þær skylldu vera, og sette Þær í musfered, fimm til hægre handar, og fimm til vinstre handar.

8. Hann gerde og tíu bord, og sette þau í musfered, fimm á hægre sídu, og fimm á vinstre sídu, og hann gerde hundrad munnlaugar af gulle.

9. Hann gerde og einn gard fyrer prestana, og eitt miked gangrúm, og dyr á gangrúmenu, og yferdró dyrnar med kopar.

10. Og hann sette hafed á hægra horned til austurs sunnann til.

11. Og Hyram gerde potta, skeifar, og munnlaugar. So fullkomnade Hyram verkid, sem hann smídade Salomon konge, til Guds húss,

12. Sem var, þeir tveir stólparner med sínum listum, og knøppum, ófann á bádum stolpunum, og þeir báder sm nu hlecker, til ad hylia listurnar, ófann á stólpunum.

13. Og þau fiogurhundrud granata eple, á þeim bádum smnu hleckium, tvær radir granata epla á hverium streing, og huldu bádar listurnar á knøppunum, sem voru ófann á stólpunum.

14. Og hann gerde stólana, og katlana á stólunum.

15. Og eitt haf, og tolf uxa þar under.

16. Þar til med potta, skeifar, króka, og øll þeirra ker gerde hann, og hans fader Hyram, Salomon konge, til Drottins huss, af klárum kopar,

17. J herade hiá Jordan let kongurenn steypa þetta, í þyckre jør-

du, í millum Suchoth og Zaredatha.

18. Og Salomon gerde ofurmørg þesse ker, so ad einginn kunni ad vita vigtena á koparnum.

19. Og Salomon gerde øll verkfærenn til Guds húss, sem var, þad gull alltare, borded, og skodunar braudenn þar ófaná.

20. Liósastikurnar, med þeirra lømpum, af kláru gulle, ad þær skylldu brenna fyrer kórnum, so sem tilheyrde.

21. Og blomstrinn á lømpunum, og liósasørenn voru af gulle, þad var alltsaman af þessu gulle.

22. Þar med knífana, munnlaugarnar, skeidernar, og skálernar, voru af kláru gulle. Og inngangurenn, og hans hurd innan til, til þess allrahelgasta, og dyrnar á musteresins húse, voru af gulle. So var allt verkid fullkomnad, sem ad Salomon gerde á húse Drottinns.

## 5. Capitule.

1. Og Salomon bar inn hangad allt þad sem hans fader David hafde helgad, sem var silfur og gull, og allrahanda ker, og lagde þad í fehyrdslur í Guds huse.

2. Þá samankallade Salomon alla enu ellstu í Israel, høfudsmenn allra kynkvísla, høfdingia fedranna á medal Israels barna, til Jerusalem, ad þeir skylldu føra upp Davids sáttmáls ørk af Davids stad, þad er Zion.

3. Og aller Israels menn søfnudust samann til kongsins á hátídenne, þad er í þeim siøunda mánade.

4. Og aller enu ellstu í Israel komu, og Levitarner tóku upp ørkena,

5. Og báru hana upp med samkundu-tialldbudenne, og þann allann heilagann umbúnad, sem var í tialldbúdenne, báru prestarner og Levitarner upp med.

6. Enn Salomon kongur, og allur Israelis søfnudur, samansafnadur til hans fyrer ørkenne, offrudu saudum og uxum, so mørgum, ad engenn kunne ad telia edr reikna þad.

7. So var nú Drottins sáttmáls ørk borenn af vrestunum, í sinn stad, inn í kórenn hussens, í þad allrahelgasta, under vænge Cherubim.

8. So ad Cherubim útbreiddu sína vænge yfer stad arkarennar, og Cherubim huldu ørkena, og hennar steingur ofan-verdt.

9. Enn steingurnar voru so langar, ad siá mátte á knappana á þeim fyrer framann kórenn, enn utann til sáust þeir eigi. Og hún var þar allt til þessa dags.

10. Og ecki var í ørkenne, utan þau tvø spiølld, sem Moses let í hana, í Horeb, þá ad Drottinn gerde einn sáttmála vid Israels born, þá þeir fóru af Egyptalande.

11. Enn sem prestarner gengu nú út af helgedomenum (þvi aller prestar, sem nærstadder voru, helgudu sig,

12. Af þvi þeirra skickan helldst eigi) og Levitarner med øllum þeim sem voru under Assaph, Heman, Jedithun, þeirra børn og brædur, skrydder línklædum, sungu med cymbalis, psollturum, og hørpum, og þeir stódu austan til hiá alltarenu, og hundrad og tuttugu prestar hiá þem, sem ad blesu í basunur.

13. Og þad var so sem være þad einn er trømetade og synge, so heyrdu menn eina raust til ad lofa

og þacka Drottne. Og sem raust enn uppȟófst af basununum, cymbalis, og ødrum streingleik, og um lof Drottins, þad hann er gódur, og hans miskun varer æfenlega. Þá vard Drottins hus uppfyllt af þoku,

14. So ad prestarner gátu eigi stadeð og þiónad, fyrer þokunne, þviad dyrd Drottins uppfyllte Guds hús.

## 6. Capitule.

1. Þá sagde Salomon: Drottinn hefir talad, ad hann vilide bua í dimmunne.

2. Eg hefe ad vísu byggt eitt hús þer til íbúdar, og eitt sæte þar þú búer ad eylífu.

3. Og kongurenn snere sinne ásionu, og blessade allann Israels søfnud, þviad allur Israels søfnudur stód.

4. Og hann sagde: lofadur se Drottinn Israels Gud, sem med sínum munne hefir talad til míns fødurs, og hefir fullkomnad þad med sinne hende, þar hann sagde:

5. Frá þeim tíma ad eg útleidde mitt folk af Egyptalande hefe eg engann stad útvaled í øllum Israels ættum, til ad byggia eitt hús, so ad mitt nafn skylldе þar vera, og eg hefe engann mann útvaled, ad vera einn høfdinge yfer mínu fólki Israel.

6. Enn eg hefi útvaled Jerusalem, ad mitt nafn skal vera þar, og eg hefe útvaled David, ad hann se yfer mínu fólke Israel.

7. Og þá minn fader David hafde nú í hug, ad byggia Drottins Guds Israelis nafne eitt hús,

8. Þá sagde Drottinn til míns fødurs Davids: þú gerder vel, ad þú hafder í sinne ad byggia mínu nafne eitt hús.

9. Enn þó skalltu eigi byggia þad hús, helldur þinn sonur, sá ed koma skal af þínum lendum, hann skal byggia mínu nafne eitt hús.

10. So hefir nú Drottinn stadfest sín ord er hann talade. Þviad eg em komenn í míns fødurs Davids stad, og sit uppá Israels stóle, epter ordum Drottins, og eg hefe byggt Drottins Israels Guds nafne eitt hús.

11. Og eg hefe sett þangad ørkena, í hverre ad Drottins sáttmále er, sá hann hefir gert vid Israels børn.

12. Og hann geck framm fyrer alltare Drottins, fyrer øllum Israelis søfnude, og utbreidde sínar hendur.

13. Þvi Salomon hafde gert einn koparketil, og sette hann á gangrúmed, fimm álna langann og breidann, og þriggia álna háann, til hans geck hann, og fell nidur á sín kne, fyrer øllum Israelis almúga, og upplypte sínum høndum til himensins,

14. Og sagde: Drottinn Gud Israels! þar er engenn Gud þer líkur, hverke á himne ne jørdu, þú sem helldur sáttmála og miskunseme vid þína þenara, þá sem ganga fyrer þer af øllu hiarta.

15. Þú hefir efnt vid þinn þenara David, minn fodur, þad þú hønum tilsagder. Þú hefir talad þad med þínum munne, og fullkomnad þad med þinne hende, so sem stendur á þessum degi.

16. Nú Drottinn Gud Israels! hallt vid þinn þenara, minn fodur David, þad þu talader vid hann, og sagder: eige skal þig vanta einn mann, fyrer mer, hver ed sitia skal á Israels stóle. Þó so framt, ad þín børn geyme sína vegu, og þeir

sange í mínu lógmále, líka sem þú hefir genged fyrer mer.

17. Nú Drottinn Gud Israels! lát þitt ord verda satt, þad þú taladet til Davids þíns þenara.

18. Þvi meinar þú nockud ad Gud búe hiá mønnum á jordunne? siá! himenenn og aller himnanna himnar taka þig ei, hvernenn skyllde þá þetta hús, sem eg hefe byggt, þad meiga gera?

19. Enn snú þer Drottinn Gud minn! til bænar þíns þenara, og til hans grátbeidne, so ad þú viler heyra þá raust og bæn sem þinn þenare gerer fyrer þer.

20. Ad þín augu meige vera openn yfer þessu huse dag og nótt, yfer þessum stad, hvar þú hefir sagt, ad þú villder setia þitt nafn, ad þú viler heyra þá bæn sem þinn þenare mun gera í þessum stad.

21. Þar fyrer heyr nú þíns þenara og þíns folks Israels grátbeidne, sem þeir munu bidia í þessum stad, og heyr þad af þínum heimelisstad frá himnenum, og nær þú þad heyrer, þá vert þú miskunsamur.

22. Ef ad nockur madur syndgast imót sínum náunga, og á hann er einn eidur lagdur, sem hann skal svera, og eidurenn kemur fyrer þitt alltare í þetta hús,

23. Þá viler þú heyra hann, af himnenum, og skicka þínum þenara rett, og ad þú viler bitala þeim óguðlega og gefa hans veg uppá hans høfud, og rettlæta þann hinn rettferduga, og gefa honum epter sínu rettlæte.

24. Þegar þitt folk Israel verdur sleiged fyrer sínum óvinum, fyrer þad þeir hafa syndgast imóte þer, og þeir snúa ser, og medkenna þitt nafn, bidia og sárgræta fyrer þer í þessu húse.

25. Þá heyr þú þá af himnenum, og vert þú nádugur yfer syndum þíns folks Israels, og leid þá aptur í landed, þad þú gafst þeim og þeirra fedrum.

26. Nær ed himinenn er tilbyrgdur, so þar rigner eigi, þvi þeir hafa syndgast imóte þer, og þeir bidia í þessum stad, og medkenna þitt nafn, og snúa ser frá sínum syndum, epter þad þú hefir lítelækad þá,

27. Þá heyr þú í himnenum, og ver þú nádugur yfer syndum þinna þenara og þíns folks Israel, þegar þú hefir kennt þeim þann góda vegenn á hverum ed þeir skulu ganga, og lát rigna á þitt land, sem þú gafst þínu fólke til eignar.

28. Nær þar kemur hallære í landed, eda drepsótt, eda þurkur, brune, eingesprettur, kólormar, eda nær þeirra óviner setiast um þeirra borgarhlid í landenu, eda nockur plága eda siúkdomur.

29. Hver sem þig bidur þá, og grátbæner, af hverskins mønnum og á millum alls þíns folks Israel, ef ad nockur finnur til sinnar plágu og vesældar, og hann útbreider sínar hendur til þessa húss,

30. Heyr þú þá af himnenum, af þínu heimelis sæte, og vert nádugur, og gef serhverum epter øllum sínum veige, so sem þú þecker hans hiarta vera (þviad þú alleina þecker hiørtu allra mannanna barna.)

31. Uppá þad, ad þeir ótteist þig, og gange í þínum vegum, alla daga, so leinge sem þeir lífa í þvi lande, sem þú hefir gefed vorum fedrum.

32. Og ef nockur útlendur, sem eigi er af þínu fólke Israel, kemur af fiarlægu lande sökum þíns mikla nafns og volldugrar handar, og

þess útretta arms, og tilbidur á móte þessu húse,

33. Heyr þú þá af himnenum, af sæte þíns heimelis, og ger allt þad hvar fyrer hann ákallar þig. Uppá þad, ad allt folk á jørdu meige þeckia þitt nafn, og óttast þig, líka sem þitt folk Israel, ad þeir meige vita, ad þetta hús, sem eg hefe byggt, er kallad epter þínu nafne.

34. Þegar þitt folk útfer í stríd imóte sínum óvinum, á þann veg sem þú sender þá, og þeir bidia til þín, á veigenum til þessa stadar sem þú útvalder, og til þess húss sem eg byggda þínu nafne,

35. Heyr þá af himnenum, bæner þeirra og grátbeidne, og hiálpa þeim til þeirra rettar.

36. Þá ad þeir syndga imóte þer (þvíad þar er engenn manna sem ei syndgast) og þú reidest þeim, og þú gefur þá under þeirra óvine, so þeir færa þá herteknа í burt, í eitt land, langt eda skamt í burtu.

37. Og í því lande snúa þeir ser í sínum hiør..n, þar þeir eru fángner, og snuost, og grátbæna þig í þeirra herleidingar lande, og seigia: ver høfum syndgast, misgert, og verid ógudleger.

38. Og þeir snúa ser til þín af øllu hiarta, og af allre øndu, í þeirra herleidingar lande, þar þeir eru í fángelse halldner, og bidia á móte veigenum sem liggur til þeirra lands, sem þú gafst þeirra fedrum, og til þess stadar sem þú hefir útvaled, og til þess húss sem eg hefe byggt þínu nafne,

39. Þá heyr þú í himenenn, þeirra bæn og sárgrætne, af sæte þíns heimelis, og hiálpa þeim til þeirra rettar, og ver þú þínu fólke nádugur, sem ad syndgast hefir imóte þer.

40. So lát nú, minn Gud! þín augu vera openn, og lát þín eyru gefa gætur ad þeim bænum, sem ske í þessum stad.

41. Og nú Drottinn Gud! tak þig upp, til þinnar hvíldar, þú og ørk þíns styrkleika. Drottinn Gud, lát þína presta vera ískrydda hiálprædenu, og lát þína heiløgu gledia sig í því enu góda.

42. Drottinn Gud! snú þú eige þínu andlite frá þínum smurda, minnstu miskunar þeirrar, sem þú lofader David þínum þenara.

## 7. Capitule.

1. Enn sem Salomon hafde endad sína bæn, fell elldur ófann af himnum, og brennde upp brenneoffred, og þær adrar fórner. Og Drottins dyrd uppfyllte húsed.

2. Og prestarner gátu eigi geinged inn í hús Drottins, so leinge sem Drottins dyrd uppfyllte Drottins hús.

3. Og øll Israelis børn sáu elldinn ófann falla, og Drottins dyrd yfer húsed, og þeir fellu á sín kne, med sínar ásiónur til jardar, framm á steingolfed, og bádust fyrer, og þøckudu Drottni, þvíad hann er gódur, og hans miskunseme varer eylíflega.

4. Enn kongurenn og allt fólked færdu fórner fyrer Drottne,

5. Því Salomon kongur fórnfærde tvø og tuttugu þusund uxa, og hundrad og tuttugu þusund sauda, og vígdu so Guds hús, bæde kongurinn og allt fólked.

6. Enn prestarner stódu í sínu vardhallde, og Levitarner med Drottins hliódfærum, sem David kongur let gera, til ad þacka Drottne med, ad hans miskunseme varer eylíflega, med Davids Psalmum fyrer þeirra hønd, og prestarner

blefu í basunurnar á móte þeim, enn allur Israel stód.

7. Og Salomon helgade midgardenn, sem var fyrer Drottins húse, því hann hafde þar fullkomnad brennefórnena, og þacklætesins offurs feitleika, søkum þess, ad þad kopar-alltare, sem Salomon let gera, var eigi so stórt ad þad tæke allar brennefórner, matarfórner, og feitleika.

8. Og á þessum sama tíma, hellt Salomon eina hátíd í siø daga, og allur Israel med hønum, einn miøg mikell søfnudur, frá Hemath, og til Egypti lækiar.

9. Og á þeim áttunda deige hellt hann eina samkomu, þvíad alltaresins vígslu helldu þeir í siø daga, og hátídena og so í siø daga.

10. Enn á þeim þridia og tuttugasta dege í þeim siøunda mánade let hann fólked fara til sinna heimila, med glede, og fagnade yfer øllu því enu góda, sem Drottinn hafde veitt David, og Salomone, og sínu fólke Israel.

11. So fullkomnade Salomon, Drottins hús, og kongsins hús, og allt þad, sem hann hafde í hiarta ad gera, í Drottins huse, og í sínu huse, luckusamlega.

12. Og Drottinn byrtest Salomone um nótt, og sagde til hans: eg hefe heyrt þína bæn, og hefi útvaled mer þennann stad, til eins fornfæringar húss,

13. Siá! nær eg byrge himenenn so þar rigner eigi, eda eg byd eingesprettum upp ad eta landed, eda eg læt koma drepsótt á medal míns folks,

14. So ad mitt folk audmyke sig, hvert kallad er epter mínu nafne, og þeir bidia, og leita míns andlits, og snúa ser frá sínum vondum vegum, þá vil eg heyra af himnenum, og ysergefa þeim þeirra synder, og lækna þeirra land.

15. So skulu nú mín augu vera openn, og mín eyru skulu giæta ad bænum í þessum stad.

16. So hefe eg nú útvaled þetta hús, og þad heilagt gert, ad mitt nafn skal vera þar æsennlega, og mín augu, og mitt hiarta, skulu alltíd vera þar.

17. Og ef þú geingur fyrer mer so sem þinn fader David geck, so ad þú gerer allt þad sem eg befala þer, og helldur mín bodord, og rettinde,

18. Þá vil eg stadfesta þinn konunglegann stól, líka sem eg hefe sáttmálabunded mig, vid þinn fødur David, og sagt: þig skal eigi vanta einn mann, hver ed se høfdinge yfer Israel.

19. Enn ef þer umsnúed ydur, og yfergefed mín rettinde, og bodord, sem eg hefe lagt fyrer ydur, og þer fared burt, og þiéned ødrum gudum, og tilbided þá,

20. Þá skal eg uppræta þá af mínu lande, sem eg hefe gefed þeim. Og þetta hús, sem eg hefe helgad mínu nafne, því skal eg burtkasta frá mínu andlite, ad þad verde ad ordsqvid, og dæmesøgu, á medal allra þióda.

21. Og fyrer þessu húse, sem er orded þad hærsta, munu aller óttast, sem þar ganga framm hiá, og seigia: því hefir Drottenn fared so med þetta land, og med þetta hús?

22. Þá mun svarad verda: fyrer því, ad þeir hafa yfergefed Drottinn þeirra fedra Gud, þann sem þá leidde af Egyptalande, og hafa gefed sig til annarlegra guda, og, tilbided, og þiónad þeim, þar fyrer hefir hann leidt alla þessa ólucku yfer þá.

## 8. Capitule.

1. Og epter þau tuttugu ár, ó hverum Salomon byggde Drottins hús, og sitt hús,

2. Þá byggde hann og so þær borger, sem Hiram gaf Salomone, og let Israels børn búa í þeim.

3. Og Salomon fór til Hemath Zoba, og eflde hana.

4. Og hann byggde Thadmor í eydemørkenne, og alla kornstadena, sem hann byggde í Hemath.

5. Hann byggde og þa hina efre og nedre BethHoron, ad þad voru sterkar borger, med múrveggium, portum, og grindum.

6. Og Baelath, og alla kornstade, sem hann hafde, og alla vagnstade, og þá riddara stade, og allt þad, sem Salomon hafde lyst til ad byggia, bæde í Jerusalem, og uppá Libanon, og í øllu lande síns herradoms.

7. Allt þad folk, sem epter var orded af þeim Hethitum, Amoritum, Pheresitum, Hevitum, og Jebusitum, sem eigi var af Israels børnum,

8. Og þeirra børn, sem þeir høfdu láted epter sig í landenu, hvora Israelis børn høfdu eigi eydelagt, þessa gerde Salomon ser skattgyllda, inn til þessa dags.

9. Enn Salomon let engann af Israels børnum gera sit starf, helldur voru þeir stridsmenn, og høfdingiar yfer hans riddørum.

10. Og þeir yppurstu valldsmenn Salomons kongs, sem stiórnudu yfer fólkenu, voru ad tølu tvø hundrud, og fimmtíu.

11. Og Salomon let sækia dottur Pharaonis frá Davids borg, í þad hús, sem hann hafde byggt henne, þvi hann sagde: mín kvinna skal eigi búa í Davids Israels kongs húse, þvi þad er helgad, fyrst ad ørk Drottins er þar innkomenn.

12 Epter þad offrade Salomon Drottne brenneførnum yfer Drottins alltare, þad hann hafde byggt fyrer framann forhúsed.

13. Hvert offur á sínum deige, epter Moses bode, á Þvottdøgum, á ny-mánudum, og á tilsettum tímum, þrim sínum umáred, sem var á þeirre ósyrdu brauda hátídenne, á viku hátídenne, og á lauffala hátídenne.

14. Og hann sette prestana í þeirra skipan, til þeirra embættis, so sem hans fader David hafde tilsett, og Levitana í þeirra vardhalld, ad lofa, og þióna fyrer kennemønnunum, epter þvi sem daglega þurfte, og dyraverdena í sinne skipan, hvern í sínu porte, þvíad David Guds madur hafde so bifalad.

15. Og þeir viku eigi frá nockru bode kongsins, sem hann gerde um prestana, Levitana, í allrahanda málefnum, og um fesióduna.

16. So var tilbúed allt verk Salomonis, frá þeim deige, sem grundvøllurenn var lagdur til Drottins húss, og þar til hann hafde fullkomnad þad, ad Drottins hús var med øllu búed.

17. Sidan fór Salomon til Ezeon Geber, og til Eloth vid sióarsiøruna í landenu Edomea.

18. Og Hiram sende hønum skip med sínum þenurum, hverer ed voru farmenn mikler, og þeir fóru med Salomons þenurum til Ophir, og flúttu þadann fiøgur hundrud og fimmtíu centener gulls, og færdu þad til Salomons kongs.

## 9. Capitule.

1. Þegar Drottingenn af ríke Arabia heyrde rikte Salomonis þá kom hún med miklu føruneyte til

Jerusalem, med ulfølldum, sem báru jurter, og miked gull, og gimsteina, ad reyna Salomon med diúpum spurningum. Enn sem hún kom til Salomons talade hún vid hann allt þad hún hafde ætlad ser.

2. Og kongurenn sagde henne allt þad hún spurde ad, og þar var ecke huled fyrer Salomone, ad hann segde henne þad eige.

3. Og sem Drottningenn af Arabia rike sá speke Salomonis, og þad hús, sem hann hafde byggt,

4. Vister á hans borde, og herberge hans sveina, hans þiónustumanna embætte, og þeirra klædnad, hans skeinkiara, og þeirra klædnad, og hans sal, þar sem upp var geinged til Drottins húss, þá gat hún eigi leingur hallded ser.

5. Og hún sagde til kongsins: satt er þad sem eg hefe heyrt í mínu lande, um þitt frammferde, og um þinn vísdom.

6. Enn eg villda eigi trúa þeirra ordum, fyrr enn ad eg kom, og hefe sed þad med mínum augum. Og siá! mer hefir eigi vered helmingur sagdur af þínum mikla vísdome, hann er meire med þer, helldur enn þad rikte sem eg hefe heyrt.

7. Sæler eru þíner menn, og sæler eru þesser þíner þenarar, sem ætíd standa framme fyrer þer, og heyra þinn vísdom.

8. Drottinn þinn Gud se lofadur, hver ad elskar þig, og hefir sett þig í sitt hásæte til kongs, Drottne þínum Gude. Þad gerer þad, ad þinn Gud elskar Israel, ad hann upphefe hann æfennlega, þar fyrer sette hann þig til kongs yfer þá, ad þú skallt fremia dóm, og rettinde.

9. Og hún gaf kongenum hundrad og tutugu centener gulls, og miøg miklar kostulegar jurter, og dýrmæta steina. Þar voru engar jurter þvilíkar sem þessar, hverar Drottningenn af ríke Arabia gaf Salomon konge.

10. So og þenarar Hirams, og þeir sveinar Salomonis, þeir fluttu gull af Ophir, þeir fluttu og so þebentre, og dýrmæta steina.

11. Og Salomon let gera trøppur af þessu þebentre, í huse Drottins, og í kongsins huse, so og hørpur, psalltara, til saungaranna, soddann vidur hafde eigi fyrr sen vered í landenu Juda.

12. Og Salomon kongur gaf Drottningunne af ríke Arabia allt þad hana gyrnte, og hún bad ept er, fyrer utann þad sem hún hafde fært kongenum. Og hún snere aptur, og fór heim í sitt land, med sínum þenurum.

13. Enn þad gull, sem Salomoni var fært árlega, var sex hundrud sextíu, og sex centener.

14. Ad auk þess sem kramarar og kaupmenn færdu hønum. Og aller kongar af Arabia, og herrar í landenu, færdu bæde gull og silfur til Salomons.

15. Þar af gerde kongurenn Salomon tvø hundrud skiølldu, af þvi besta gulle, so ad sex hundrud sticke gulls fóru til hvers skiølldar.

16. Og þriú hundrud buklara af þvi besta gulle, og til hvers eins buklara fóru þriú hundrud sticke gulls. Og kongurenn let þá í þad hús í Libanus skoge.

17. Og kongurenn let gerá storann stól af filabeinum, og bió hann med skíru gulli.

18. Og stóllenn hafde sex trøppur, og einn fótstall af gulle upp vid stólenn, og hann hafde tvær bríkur á bádar sídur vid sæted, og þar stódu tvø Leon hiá bríkunum.

19. Og tolf Leon stódu á þeim sex trøppum, á bádar sídur, þvi

likt er alldrei gert í nockru kongarike.

20. Og oll Salomons kongs dryckiar ker voru af gulle, og oll kerenn í Libanus skogs huse voru af kláru gulle. Þvi ei þotte silfur nockurs verdt á døgumSalomonis.

21. Þviad kongsins skip sygldu yfer hafed, med þenurum Hirams, og komu einu sinni í þremur árum, og flúttu gull, silfur, filsbein, apiniur, og páfugla.

22. So var nú Salomon kongur meire enn aller adrer kongar á jørdunne, af audæfum, og speke.

23. Og aller kongar á jørdunne gyrntust ad siá Salomonis andlit, og ad heyra hans speke, hveraGud hafde hønum gefed í hans hiarta.

24. Og serhver þeirra færde hønum gáfur, silfurker, og gullker, klæde, bryniur, iurter, hesta, og múla, árlega.

25. Og Salomon hafde fiøgur þusund vagnhesta, og tolf þusund riddara, og þá settu menn í vagnborgernar, og hiá kongenum í Jerusalem.

26. Og hann varHerra yfer øllum kongum, frá vatnenu, og allt til Philistea lands, og inn til Egyptaranna landamerkia.

27. Og kongurenn gerde so mikla gnogt af silfre í Jerusalem, sem af grióte, og af cedrustre so miked sem morberire í dalnum.

28. Og hønum flúttust hestar af Egyptalande, og af øllum løndum.

29. Enn þad sem meira er ad seigia um Salomon, bæde hans ed fyrsta, og hid sídarsta: siá! þad er skrifad í Nathans spámanns Chroniku, og í spádome Ahia af Silo, og í siónum Jeddi þess siaánda, mót Jeroboam, syne Nebat.

30. Og Salomon rikte í Jerusalem yfer aullum Israel í fiørutíu ár.

31. Og Salomon sofnade med sínum fedrum, og þeir jørdutu hann í borg Davids síns fødurs. OgRoboam hans sonur vard kongur í hans stad.

## 10. Capitule.

1. Roboam fór til Sichem, þviad allur Israel var komenn til Sichem, ad taka hann til kongs.

2. Enn sem Jeroboam, sonur Nebat, sem var í Egyptalande, heyrde þad, (hvert hann hafde flúed fyrer konginum Salomone) þá kom hann aptur af Egyptalande.

3. Og þeir sendu þangad, og letu kalla hann. OgJeroboam kom med øllum Israel, og tøludu vid Roboam, og søgdu.

4. Þinn fader gerde vort ok ofhardt, so ger þú nú þá hørdu þiónustu þíns fødurs lettare, og þad þunga ok, sem hann lagde á oss, þá vilum ver vera þer undergefner.

5. Og hann sagde til þeirra: epter þría daga komed aptur til mín. Og fólked geck í burt.

6. Enn Roboam kongur rádgadest um vid þá ølldunga, sem stadeð høfdu fyrer hans fødur Salomone, á medaun hann lifde, og sagde: hvada ráð gefed þer, hvert suar eg skule gefa þessu fólke?

7. Þeir tøludu vid hann og søgdu: viler þú vera vingiarulegur vid þetta folk, og høndla vinsamlega vid þá, og gefa þeim gód ord, þá verda þeir alltíd þer undergefner.

8. Enn hann yfergaf ølldunganna ráð, sem þeir gáfu hønum, og rádgadest um vid þá ungu menn, sem upphøfdu vared med hønum, og stódu fyrer hønum.

9. Og sagde til þeirra: hvad

rádlegged þer, ad ver skulum svara þessu fólke, sem talade vid mig, og sagde: ger þad ok lettara sem þinn fader lagde á oss?

10. Enn þeir ungu menn, sem upp voru varner med hønum, tøludu vid hann, og søgdu; so skalltu seigia til folksins, sem talad hefir vid þig, og sagt: þinn fader gerde vort ok óþungt, ger þú vort ok lettara, og seig þú til þeirra: minn hinn minnste fingur skal vera þickre enn míns fødurs lendar.

11. Hafe nú minn fader lagt óþungt ok á ydur, þá skal eg gera ydart ok enn meira, minn fader agade ydur med svipum, enn eg med høggormum.

12. Nu sem Jeroboam kom aptur, og allt fólked, á þeim þridia deige, til Roboams, epter þvi sem kongurenn hafde sagt, komed aptur til mín á þeim þridia deige,

13. Þá svarade kongurenn þeim hardlega. Og Roboam kongur yfergaf ølldunganna rád.

14. Og talade vid þá so sem þeir ungu menn rádløgdu, og sagde: hafe minn fader gert ydart ok óþungt, þá vil eg leggia þar enn meira til, minn fader agade ydur med svipum, enn eg med høggormum.

15. Og kongurenn hlydde eigi fólkenu, þvíad þad var so tilsett af Gude, uppá þad, ad Drottinn villde stadfesta sitt ord, þad hann talade fyrer Ahia af Silo, til Jeroboams, sonar Nebats.

16. Og sem allur Israel sá, ad kongurenn villde eigi hlyda þeim, þá svarade fólked kongenum, og sagde: hvada hlutskipte eigum ver í David, eda arf í syne Isai? fare hver madur af Israel til sinna heimkynna, so siá þú nú fyrer þínu húse David! og allur Israel geck til síns heimelis.

17. Og Roboam ríkte alleina yfer Israels bornum, þeim sem biuggu í Juda stødum.

18. Og Roboam kongur útsende sinn skatta-høfdingia Hadoram, enn Israels born grytitu hann íhel. Og Roboam kongur ste med flyte á sinn vagn, og flude til Jerusalem.

19. So fell Israel frá Davids húse, allt til þessa dags.

## 11. Capitule.

1. Enn þá Roboam kom til Jerusalem, þá safnade hann samann húse Juda, og Benjamin, hundrad og áttatíu þusundum ungra, og hraustra strídsmanna, ad beriast vid Israel, ad vinna ríked aptur under Roboam.

2. Enn Drottins ord kom til Semaia, Guds manns, og sagde:

3. Seig þú til Roboams: sonar Salomons, kongsins í Juda, og til alls Israels, sem er í Juda, og Benjamin, og seig:

4. So seiger Drottinn, eige skulud þer ferdast upp þangad, og eige helldur beriast imóte ydrum brædrum, fare hver heim aptur, þviad þetta et sked af mer. Þeir hlyddu orde Drottins, og letu af þeirre herfør imóte Jeroboam.

5. Og Roboam bió í Jerusalem, og byggde þá stade fasta í Juda.

6. Sem var, Bethlehem, Etam, Thekoa.

7. Bethzur, Socho, Adullam.

8. Gath, Maresa, Siph.

9. Adoraim, Lachis, Asekah,

10. Zarega, Ajalon, og Hebron, þessar voru enu sterkustu borger í Juda og Benjamin.

11. Og hann gerde þær sterkar, og sette høfdingia í þær, og nægter af vistum, vidsmiøre, og vine.

12 Og hann tilskickade Fiølldu, og spiót, í allar borger, og gerde þær rammbyggdar. Og Juda og Benjamin voru under hønum.

13. Enn preslarner, og Levitarner komu til hans af øllum Israel, og af øllum þeirra landamerkium.

14. Og þeir yfurgáfu sína forstade, og sinar eigner, og komu í Juda til Jerusalem, þviad Jeroboam, og hans syner, útrymdu þá, so ad þeir máttu eigi fremia Drottins presta embætte,

15. Enn hann tók ser presta til þeirra hæda, og til þeirra landdiøsla, og kálfa, sem hann let gera.

16. Og marger komu epter þeim, af øllum Israels ættum, hverra hiørtu inngáfu þeim ad leita Drottins Israels Guds, í Jerusalem, og ad offra til Drottins þeirra fedra Guds.

17. Og þeir efldu so kongsrike Juda, og stadfestu Roboam, son Salomons, í þriú ár. Þviad þeir geingu á veige Davids, og Salomons, í þriú ár.

18. Og Roboam tók ser eiginn kvinnu, Maheiath, dottur Jeri moth, sonar Davids, og Abihail, dottur Eliabs, sonar Isai,

19. Hún fædde hønum þessa sonu, Jeus, Semarja, og Saham.

20. Epter þad tók hann Maecha, dotter Absalons: hún fædde hønum Abia, Athai, Sisa, og Selomith.

21. Enn Roboam hafde Maecha, dotter Absalons: ástkiærare enn allar adrar sínar eigennkonur og frillur, þvi hann hafde átian eiginnkvinnur, og sextíu frillur, og hann gat átta og tutugu sonu, og sextíu dætur.

22. Og Roboam sette Abia, son Maecha, til eins høfuds og høfdingia á medal hans brædra, þvi hann ætlade ser ad setia hann til kongs.

23. Og hann gerde vísslega, og útskipte af øllum sínum sonum í land Juda og Benjamins, í alla fasta stade, og hann gaf þeim ofurmiklar vistex, og tók fiølda eigennkvenna.

## 12. Capitule.

1. Enn nú sem kongsrike Roboams stadfestest og efldest, þá yfergaf hann Drottins løgmál, og allur Israel med hønum.

2. Enn á því fimmta áre Roboams kongs, þá fór Sisak, kongurenn af Egyptalande, upp imóti Jerusalem, (Þviad þeir høfdu misgert vid Drottinn.)

3. Med þusund og tvø hundrud vagna, og med sextíu þusund riddara, enn þad folk sem kom med hønum af Egyptalande, Libya, Suchim, og af Morlande, var ótelianlegt.

4. Og hann yfervann þær sterku borgernar sem voru í Juda, og kom inn til Jerusalem.

5. Þá kom Semaia spámadur til Roboam, og til høfdingianna í Juda, hverer saman høfdu safnast í Jerusalem fyrer Sisaks saker, og sagde til þeirra: so seiger Drottinn, þer hafed yfergefed mig, þar fyrer hefi eg og yfergefed ydur í hendur Sisaks.

6. Þá audmyktu Israels høfdingiar sig med kongenum, og søgdu: Drottinn er rettlátur.

7. Og sem Drottinn sá þad, ad þeir audmyktu sig, þá kom ord Drottins til Semaia, og sagde: þeir hafa audmykt sig, þvi vil eg eigi fordiarfa þá, helldur vil eg veita þeim nockra litla hiálp, so ad mín reide skal eigi driúpa yfer Jerusalem, fyrer Sisak.

8. Þó skulu þeir vera honum undergefner, so ad þeir þecke hvad þad er ad þiéna mer, og ad þióna kongaríkium í löndonum.

9. So fór nú Sisak Egypta kongur upp til Jerusalem, og tók burt fesióduna, sem ad voru í húse Drottins, og þad liggiande fe i kongsins húse, og tók þad allt í burtu. Hann tók og þá gullskiölldu sem Salomon hafde láted gera.

10. Í hverra stad ad kongurinn Roboam let gera koparskiolldu, og befalade þá höfdingiunum hirdmannanna, hverer ad tóku vara á kongsins húsdyrum,

11. Og so opt sem kongurenn geck í Drottins hús komu hirdmennerner og báru þá, og letu þá aptur í hirdmanna herberged.

12. Og á medan hann audmykte sig þá snere Guds reide ser frá honum, so ad eigi vard allt fordiarfad, þviad þar var enn nockud godt epter í Juda.

13. Svo stadfestest nú kongurinn Roboam í Jerusalem, og rikte. Roboam hafde eitt ár og fiorutíu þá hann vard kongur, enn hann ríkte seitian ár í Jerusalem, í þeim stad sem Drottinn hafde utvaled, af öllum Israelis ættum, ad hann villde þangad setia sitt nafn. Hans móder het Naema, og var Ammonitisk.

14. Og hann gerde illa hlute, og stickade eigi sínu hiarta ad leita Drottins.

15. Enn Roboams gerningar, bæde þeir fyrstu og sídustu, þeir eru skrifader í gerninga, bók Semaja propheta, og Iddo siáand aus, og uppteiknader. Þar til var og stríd millum Roboams og Jeroboams alla þeirra lífdaga.

16. Og Roboam sofnade med sínum fedrum, og var jardadur í borg Davids, og hans sonur Abia vard kongur í hans stad.

## 13. Capitule.

1. Á þvi átianda áre Jeroboams kongs þá vard Abia kongur í Juda,

2. Og ríkte þríu ár í Jerusalem, hans móder het Michaja, dotter Uriels af Gibea. Og þar upphófst eitt stríd á millum Abia og Jeroboams.

3. Og Abia bió sig til bardaga med fiögur hundrud þusund ungra og hraustra strídsmanna. Jeroboam bióst og til ad stríða vid hann med átta hundrud þusund ungra og raskra strídsmanna.

4. Og Abia bió sig til á fialle Zemaraim, sem liggur á fialle Ephraim, og sagde: heyr mig Jeroboam, og allur Israel!

5. Vited þer ei, ad Drottenn Gud Israels hefir gefed David kongsríke í Israel æfinlega, honum og hans sonum, einn sallts sáttmála?

6. Enn Jeroboam, sonur Nebats, þenare Salomons, sonar Davids, hóf sig upp, og fell frá sínum Herra.

7. Og margt lausingia folk og börn Belials gáfu sig til hans, og hann styrkte sig móte Roboam, syne Salomons, þvi Roboam var ungur og blauthiartadur, so hann kunne eigi ad veria sig fyrer þeim.

8. Nú hugsed þer ad setia ydur upp imóte ríke Drottins, sem er under sonum Davids, fyrer þvi, ad þer erud miög marger, og hafed þá gullkálfa, sem Jeroboam gerde ydur til Guda.

9. Hafed þer eigi útreked börn Arons Drottins presta, og Levitana, og hafed gert ydur siálfum presta, so sem þióder landsins? hver sem kemur med ungann uxa og siö

, bruta, ad fylla sína hønd, hann verdur þeirra prestur sem eigi eru Guder.

10. Enn Drottinn vor Gud er med oss, hvern ver eigi yfergefum, og þeir kennemenn sem þióna Drottne, Aarons børn, og Levitarner í þeirra gerninge;

11. Og þeir uppkveikia Drottins brennefórner hvern morgun, og hvert kvølld, so og þad góda reykverk, og tilreida braudenn á þvi hreina borde, og tilbúa þá gullegu lióssastiku, med sínum lømpum, so þeir tendrest hvern aptan, þviad ver holldum Guds vors Drottins vardhallde, enn þer hafed . yfergefed hann.

12. Siá! Gud er med oss fremst í vorre fylkingu, og hans prestar, og trametararner til ad trameta, ad þar verde trametad á móte ydur. Þer Israels børn, berest ei á móte Drottne ydra fedra Gude, þvi þad mun eigi luckast ydur.

13. Og Jeroboam gerde launsátur allt umkring, ad hann kæme til baka vid þá, so ad þeir være framan fyrer Juda, og launsátred á bak til vid þá.

14. Enn sem Juda snere ser nú vid: siá! þá var þar strid bæde í fyrer og til baka. Þá kølludu þeir til Drottins, og prestarner blesu í básunurnar.

15. Og hver madur í Juda hrópade, og þá hver madur í Juda hrópade, þá plágade Gud Jeroboam, og allann Israel, fyrer Abia, og Juda.

16. Og Israels børn flydu fyrer Juda, og Gud gaf þá í þeirra hendur.

17. So ad Abia og hans folk veitte þeim miked slag, og þar fellu nidurslegner af Israel simm hundrud þusunder ungra stridsmanna.

18. So urdu Israels børn undirløgd á þeim sama tíma, enn Juda børn urdu huggud, þvi þeir treystu uppá Drottinn þeirra fedra Gud.

19. Enn Abia sokte epter Jeroboam, og vann borger fyrer hønum, BethEl med hennar dætrum, Jesana med hennar dætrum, og Ephron med hennar dætrum.

20. So ad Jeroboam megtadest eigi framar aptur, so leinge sem Abia lifde, enn Drottinn plágade hann, so ad hann dó.

21. Enn sem Abia var stirkur ordenn, þá tók hann ser fiortan eiginkvinnur, og gat tvo og tuttugu sonu, og sextan dætur.

22. Enn hvad fleyra er ad seigia af Abia, af hans vegum, og hans gerningum, þad er skrifad í historiu Iddó spámanns.

14. Cap. 1. Og Abia sofnade med sínum fedrum, og þeir jordudu hann í Davids borg, og Assa, hans sonur, vard kongur í hans stad og á þeim døgum var landed í kirdum um tíu ár.

## 14. Capitule.

2. Og Assa gerde þad sem rett var og þacknæmelegt fyrer Drottne hans Gude,

3. Og tók burt annarleg alltare og hæderner, og sundursló bilætinn og upphió lundana.

4. Hann let seigia Juda, ad þeir skylldu leita Drottins þeirra fedra Guds, og breita epter løgmálenu og bodordunum.

5. Og hann burttók þær hæder og afgudena úr øllum borgum í Juda, þviad ríked var í fride under hønum.

6. Og hann bygde sterkar borger í Juda, þvi landed var stillt, og ecke strid var imóte hønum á

þeim sømu árum, þviad Drottinn gaf hønum frid.

7. Og hann sagde til Juda: látum oss byggia þessar borger, og færa múrvegge í kringum þær, og turna, port, og grindur, á medan landed er enn nú fyrer oss. Þviad ver høfum leitad Drottins vors Guds, og hann hefir gefed oss frid allt umkring. So byggdu þeir, og þad geck framm luckusamlega.

8. Og Assa hafde einn mikenn her, hver ed bar skiølldu og spiót; af Juda þríu hundrud þusund manna, og af Benjamin tvø hundrud og áttatíu þusunder, sem ad skiølldu báru, og kæner voru med boga, og þetta voru allt sterker kappar.

9. Og Serah af Morlande fór út imóte þeim med einn miøg mikenn her, þusundsinnum þusund, þar ad auk þríu hundrud vagna, og kom allt til Maresa.

10. Og Assa fór imóte hønum, og þeir bigguþst til bardaga, í dalnum Zephata, hia Maresa.

11. Og Assa kallade á Drottinn sinn Gud, og sagde: Drottinn! engenn er mismunur fyrer þer, ad hiálpa med mørgum, edur þar sem magtarlaust er. Hiálpa oss Drottinn vor Gud! Þvi ver vonum á þig, og ver erum komner í þínu nafne móte þessum stóra mannfiølda, Drottinn vor Gud! engenn má ser nockud á móte þer.

12. Og Drottinn slágade þá Moriana fyrer Assa, og fyrer Juda, so þeir flúdu.

13. Og Assa, og hans folk, sem var med hønum, ráku flóttann allt til Gerar, og þeir Morianar fellu, so ad engenn af þeim vard lifande epter, og þeir voru íhelslegner fyrer Drottne, og hans her, og þeir báru miked herfáng þar frá.

14. Og hann sló alla stadena í kringum Gerar, þviad Drottins otte kom yfer þá, og þeir ræntu allar borger, þviad þar var miked herfáng í þeim.

15. Og þeir slóu nidur fehusenn, og feingu ógrynne sauda og ulfallda, og komu so aptur í Jerusalem.

## 15. Capitule.

1. Og ande Guds kom yfer Assaria, son Odeds.

2. Hann geck út imóte Assa, og sagde til hans: heyr mig Assa, og allur Juda, og Benjamin! Drottinn er med ydur, þviad þer erud med hønum, og þá þer leited ad hønum, lætur hann ydur finna sig. Enn ef þer yfergefed hann, þá mun hann og so yfergefa ydur.

3. Þar skulu vera marger dagar í Israel, ad þar mun engenn rettur Gud vera, engenn prestur sá sem kenner, og ecke løgmál.

4. Og þá þeir snúa ser í sinne naud til Drottins Guds Israels, og leita ad hønum, þá mun hann láta sig finna.

5. Á þeim tíma skal þeim eigi vegna vel sem ad ganga út og inn, þvi þar skal verda stór háfade yfer øllum þeim sem búa á jørdunne.

6. Þvi eitt fólk mun sundurknúsa eitt annad, og einn stadur annann, þvi Gud mun skelfa þá med margskonar angist.

7. Enn þer skulud vera med einu gódu gede, og taked eigi ydar hendur þar frá, þvi ydar gerningur hefir sín laun.

8. Enn sem Assa heyrde þesse ord og spádom Odeds spámanns, þá stirktest hann, og í burt tók þá svívirding af øllu Juda og Benjamins lande, og so líka af þeim borgum sem hann hafde unned á fiallenu Ephraim, og hann endur=

bætte alltare Drottins, þad sem stód fyrer Drottins fordyrum.

9. Og hann samansafnade øllum Juda og Benjamin, og þeim útlendu af Ephraim hiá þeim, Manasse og Simeon, þvi marger af þeim í Israel fellu til hans, þá þeir sáu, ad Drottinn hans Gud var med honum.

10. Og þeir søfnudust saman í Jerusalem, í þeim þridia mánade á fimmtanda áre rikis Assa,

11. Og offrudu til Drottins þann sama dag, af þvi herfánge sem þeir høfdu heim fært, siø hundrud uxa, og siø þúsund sauðe.

12. Og þeir geingu í sáttmála, ad leita Drottins þeirra fedra Guds af øllu hiarta, og af allre sálu.

13. Og hver sá sem eigi villde leita Drottins Israels Guds hann skyllde missa lífed, bæde meire háttar og minne, bæde madur og kvinna.

14. Og þeir sóru Drottne med hárre raustu, med kalle, og trometum, og basunum.

15. Og allur Juda vard gladur yfer eidnum, þviad þeir høfdu svared af øllu hiarta, og þeir leitudu hans af øllum vilia, og hann let þá finna sig, og Drottinn gaf þeim frid umhverfes.

16. Og kongurinn Assa afsette sína módur Maacha af embættenu, þvi hún hafde stiftad Miplezeth í einum lunde, og Assa afmáde hennar Miplezeth, og braut þad sundur, og brennde þad í læknum Kidron.

17. Enn hæder í Israel voru eigi burt teknar, þó var Assa hiarta rett alla hans daga.

18. Og hann flútte inn í Guds hús þad sem hans fader hafde helgad, og þad hann sialfur hafde helgad, silfur, gull, og ker.

19. Og þar var engenn ófridur inn til þess fimmtanda og tuttugasta árs Assa kongsrikis.

## 16. Capitule.

1. Á þvi sextanda og tuttugasta áre Assa kongsrikes þá fór Baesa Israels kongur imót Juda, og byggde upp Rama, ad hamla Assa Juda konge ad fara út og inn.

2. Enn Assa tók af þeim fesiódum sem voru í Drottins húse, og so í kongsins húse, silfur og gull, og sende til Benhadad, kongsins í Syria, hver ed bió í Damasco, og let seigia honum.

3. Þar er sáttmál í millum mín og þín, og millum míns og þíns fødurs. Þar fyrer hefe eg sendt þer silfur og gull, ad þú sliter þad samband vid Baesa Israels kong, so hann víke frá mer.

4. Benhadad hlydde Assa konge, og sende sína strídshøfdingia á móte Israels stødum, og þeir slóu Eion, Dan og Abel, Maim, og alla Nephthali kornstade.

5. Enn sem Baesa heyrde þad, þá hætte hann ad byggia Rama, og let af sínum gerninge.

6. Og kongurinn Assa tók allann Juda til sín, og þeir drógu þá steina og þá vidu frá Rama, med hverum Baesa byggde, og hann byggde þar med Geba og Mizpa.

7. Á þeim tima kom Hanani siáande til Assa Juda kongs, og sagde til hans: sökum þess, ad þú setter þitt traust til kongsins af Syrlande, enn treyster eigi uppá Drottinn þinn Gud, þar yfer er kongsins magt af Syria sloppenn þinne hende.

8. Eda voru eigi þeir enu Moriániſku, og þeir af Libya, einn stór hópur, med miøg mørgum vøgnum og riddara lide, þó gaf Drott=

inn þá í þína hønd, þá þú setter þitt traust á hann.

9. Þvi augu Drottins siá øll lønd, ad hann styrker þá sem eru hiá hønum med øllu hiarta. Fáviſlega gërder þú, þar fyrer muntu þedan í frá hafa ófrid.

10. Enn Aſſa vard reidur þeim siáanda, og sette hann í fángelſe, af þvi hann møglade á mót hønum um þetta efne. Og Aſſa nidurþrickte nockorum af fólkenu á þeim tíma.

11. Enn Aſſa gerningar, bæde þeir fyrstu og hiner sídurstu: siá! þeir eru skrifader í Juda og Iſraelis konga bók.

12. Og Aſſa vard siúkur í sínum fótum, á þvi níunda og þrítugasta áre hans kongsríkis, og hans krankdómur jókst miøg, og hann leitade eigi Drottins í sínum siúkdóme, helldur læknara.

13. So sofnade Aſſa burt med sínum fedrum, og andadest á hinu fyrsta og fertugasta áre síns kongdoms.

14. Og þeir jørdudu hann í hans grøf, þeirre sem hann let ser grafa í Davids stad. Og þeir løgdu hann í sinn legstad, sem þeir høfdu fyllt med gódu reykelſe, og allra handa dyrdlegum jurtum, tilreiddum epter apothekarans kunst, og gerdu eitt stort bál.

## 17. Capitule.

1. Og hans sonur Josaphat vard kongur í hans stad, og hann vard megtugur mót Iſrael.

2. Hann sette strídsfólk í allar sterkar borger Juda, skickade og embættismenn um Juda land, og í Ephraims borger, sem hans fader Aſſa hafde unned.

3. Og Drottinn var med Josaphat, þviad hann geck á fyrstu vegum síns fødurs Davids, og hann leitade eigi epter Baalim,

4. Helldur efter sinna fedra Gude, og geck í hans bodordum, enn eigi epter Iſraelis verkum.

5. Og þvi stadfeste Drottinn hønum kongsríked; og aller í Juda gáfu Josaphat giafer, og hann hafde ríkdom og vegſemd yferſliotanlega.

6. Og sem hans hiarta var orded øruggt í vegi Drottins tók hann epter þad hær hæder og lunda í burt af Juda.

7. Og á þvi þridia áre síns ríkis útsende hann sína høfdingia, Benhail, Obadia, Sacharia, Nethaneel, og Michaja, ad þeir skylldu kenna í stødum Juda.

8. Og Levita med þeim, Semaia, Nethania, Sebadia, Aſahel, Semiramoth, Jonathan, Adonia, Thobia, og TobAdonia, og med þeim prestana, Eliſama og Joram.

9. Og þeir kendu í Juda, og høfdu Guds løgmáls bók med ser, og ferdudust í kríngum allar borger Juda, og lærdu fólked.

10. Og otte Drottins fell yfer øll kongaríke í løndunum, sem ad láu í kríngum Juda, so þeir þordust eigi á móte Josaphat.

11. Og þeir Philistei færdu Josaphat gáfur, mikenn þunga silfurs. Og þeir af Arabia færdu hønum siø þuſund og siø hundrud hrúta, og siø þuſund og siø hundrud hafra.

12. So efldest Josaphat, og vard alltíd meire. Hann byggde slot og kornstade í Juda,

13. Og hafde miklar gnægter í stødum Juda, og strídsmenn, og volldugt fólk í Jeruſalem.

14. Og þeſſe var skipan í þeirra fedra húſe, þeir sem ad voru ypparster í Juda yfer þuſund. Høfdinge Adna, og med hønum voru

þríu hundrud þusund þad valdasta lid.

14. Næst hønum var høfdinge Johanan, med hønum voru tvø hundrud og áttatíu þusunder.

16. Næst hønum var Amasiá, sonur Sichri, hinn siálfviliuge Drottins, og med hønum voru tvø hundrud þusund hraustra manna.

17. Enn af børnum Benjamins var Eliada, mikell madur, og med hønum tvø hundrud þusund, hverer útbuner voru med boga og skiøldu.

18. Næst hønum var Josabad, og med hønum voru hundrad og áttatíu þusund, útbúner til bardaga.

19. Þesser aller hofdo vakt á kongenum, fyrer utan þá sem kongurenn hafde sett í sterkar borger í allre Juda.

## 18. Capitule.

1. Og Josaphat hafde mikenn ríkdom, og dyrd, og hann teingdest med mægdum vid Achab.

2. Og ad tveimur árum lidnum fór hann ofann til Achab í Samaria. Og Achab let slátra til hans: og til þess folks sem med hønum var, fiølda siár, og uxa. Og hann kom hønum til ad ferdast upp til Ramoth í Gilead.

3. Og Achab, Israels kongur, sagde til Josaphats, Juda kongs: far þú med mer til Ramoth í Gilead. Hann sagde til hans: eg em so sem þú, og mitt folk, so sem þitt folk, ver vilum med þer í bardagann.

4. Enn Josaphat sagde til Israels kongs: kære! leita þú til orda Drottins í dag.

5. Og Israels kongur samansafnade spámønnum, fiorum hundrudum manna, og sagde til þeirra: skulum ver ferdast til bardaga, í Ramoth, í Gilead, eda skal eg láta þad bída? þeir søgdu: far þu upp þangad, Drottinn mun gefa þá í kongsins hønd.

6. Þá sagde Josaphat: er her hverge enn nú einn Drottins spámadur, so ver meigum spyria hann ad?

7. Israels kongur sagde til Josaphat: er her enn einn madur, fyrer hvern mann kann ad adspyria Drottinn, enn mer er illa vid hann, þviad hann spáer mer einskis gods, helldur jafnan ills, og þad er Micheas, sonur Jemla. Josaphat svarade: kongurenn tale eigi so.

8. Og Israels kongur kallade einn sinn herbergia svein, og sagde: sæk þú snarlega Micheam, son Jemla.

9. Og Israelis kongur, og Josaphat, kongur Juda, sátu hver á sínum stole, skrydder klædum, á fløtnum, fyrer portdyrum Samariæ, og aller spámenn spádu fyrer þeim.

10. Og Zedekia, sonur Enaena, gerde ser járn horn, og sagde: so seiger Drottinn, med þessu skalltu stanga þá Syros, þar til þú eydeleggur þá.

11. Og aller spámennerner spádu eins líka, og søgdu: far upp þangad, þad mun þer luckast; Drottinn mun gefa þá í kongsins hønd.

12. Og sendemadurenn, sem var burt gengenn ad kalla á Micheam, talade vid hann, og sagde: siá! spámannanna rædur eru samsinna gódar fyrer kongenum; eg bid, ad þú láter þín ord og vera eins og þeirra, og tala godt.

13. Micheas sagde: so sannarlega, sem ad Drottinn lifer, hvad minn Gud seiger, þad skal eg tala.

14. Og sem hann kom til kongs-

ins, fylger Kongurenn til hans: Michea! skulum ver fara ad beriast í Ramoth, í Gilead, eda skal eg láta þad bída? hann sagde: já! fared upp þangad, þad mun luckast ydur, þad skal gefast í ydrar hendur

15. Þá sagde Kongurenn til hans: eg sære þig enn einu sinne, ad þú seiger mer eigi annad enn hvad sátt er í nafne Drottins.

16. Þá sagde hann: eg sá allann Israel í sundur tvístrast á fiollum uppe, líka sem saude, þeir sem engann hyrder hafa. Og Drottinn sagde: hafa þesser engann Herra? snúe hver og einn aptur med fride.

17. Þá sagde Israels kongur til Josaphats: sagda eg þer eigi ad hann spáer mer einskis gods, helldur ílls?

18. Og hann sagde: þar fyrer heyred þer ord Drottins: eg sá Drottenn sitia á hans stóle, og allur himensins her stód til hans hægre og vinstre handar.

19. Og Drottinn sagde: hver vill koma Achab Israels konge til, ad hann fare upp, og falle í Ramoth, í Gilead? enn sem einn sagde þetta, enn annar þad,

20. Þá kom þar einn ande framm, og geck fyrer Drottinn og sagde: eg vil koma honum til þess. Og Drottinn sagde til hans: hvar med?

21. Hann sagde: eg vil fara út, og vera einn fals ande í allra hans spámanna munnum. Og hann sagde: þú munt koma honum þar til, og þú munt koma því til leidar, far burt, og ger so,

22. Siá nú, Drottinn hefir gefid einn fals-anda í munn þessara þinna spámanna, og Drottinn hefir talad íllt í þer.

23. Þá geck Zedekia, sonur Enaena, framm, og sló Micheam á kinnungann, og sagde: um hvern veg er ande Drottins gengenn frá mer, ad hann talar fyrer þig?

24. Micheas sagde: siá! þú munt siá þad, nær þu fer inn í þad innsta svefnherberge ad fela þig.

25. Þá sagde Israels kongur: taked Micheam, og láted hann vera hiá Ammon stadarins fovita, og hiá Joab kongs syne.

26. Og seiged: so seiger kongurenn: legged þennan í myrkvastofu, og fæded hann med sorgarbraude, og vatne, þar til ad eg kem aptur med fride.

27. Og Micheas sagde: ef þú kemur aptur med fride, þá hefir ei Drottinn talad fyrer mig. Og hann sagde: heyred þad allur lydur!

28. So fór nú Israels kongur, og Josaphat, kongur Juda, upp til Ramoth í Gilead.

29. Og Israels kongur sagde til Josaphat: eg vil breita klædabúnade mínum, og fara so til bardagans, enn haf þu þín eigenn klæde. Og Israels kongur tók klæda skipte, og þeir komu í bardagann.

30. Enn Syria kongur baud sínum yppurstum riddurum: þer skulud eigi beriast, hverke imót smám ne stórum, utann alleinasta imóte Israels konge.

31. Nu sem þeir yppurstu riddarar sáu Josaphat, þá þeinktu þeir, þad er Israels kongur, og þeir slóu hring um hann, ad strida imóte honum; enn Josaphat kallade upp, og Drottinn hiálpade honum, og Gud snere þeim frá honum.

32. Því þá þeir yppurstu af riddaralidenu sáu, ad hann var eigi Israels kongur, þá sneru þeir frá honum.

33. Enn einn madur spannade sinn boga, óvitande á hvern hann

stefnde, og skaut Israels kong millum bryniunnar, og sverdreimarennar. Pá sagde hann til síns vagnmanns: snú þinne hende, og flyt mig úr bardaganum, þvi eg em sár ordenn.

34. Og þad vard mikel órusta á þeim sama deige, og Israels kongur stód í sínum vagne, á mót þeim Syris, allt til kvollds, og andadest um sólarsetur.

## 19. Capitule.

1. Enn Josaphat, kongur Juda, kom heim aptur med fride til Jerusalem.

2. Og Jehu siáande, sonur Hanani, geck út imóte honum, og sagde til Josaphats kongs: skalltu so veita lid þeim ógudlega, og elska þá sem hata Drottinn? og þvi er Guds reide yfer þer.

3. Enn þó er þar nockud gott funded hiá þer, ad þú hefir uppþogged lunda af landenu, og hefir tilbúed þitt hiarta ad leita Drottins.

4. Só var Josaphat í Jerusalem. Og hann fór út í annad sinn á medal folksins, frá BerSeba, allt til fiallsins Ephraim, og leidde þá aptur til Drottins þeirra fedra Guds.

5. Og hann sette domendur í landed, í allar sterkar borger Juda, nockra í hvera borg.

6. Og hann sagde til domandanna: siáed til hvad þer gered, þvíad ei halldeð þer dóma fyrer mennena, helldur fyrer Drottinn, og hann er med ydur í domenum.

7. Láted þvi Drottins ótta vera hiá ydur, og vardveited ydur, og gered þad, þvíad þar er ecke ránglæte hiá Drottne vorum Gude, eige helldur personunnar álit, og ei tekur hann giafer.

8. Og Josaphat skickade í Jerusalem, af Levitum, og prestum, og af þeim yppurstu fedrum í Israel, yfer Drottins doma, og yfer málaferlenn, og let þá búa í Jerusalem.

9. Og hann baud þeim, og sagde: gered so í Drottins ótta, trúlega, og med rettu hiarta.

10. I ollum þeim málefnum, sem koma fyre ydur, frá ydrum brædrum, sem búa í þeirra borgum, í millum blods, og blods, í millum logmáls, og bodorda; í millum setninga, og rettinda, skulud þer undervísa þeim, so ad þeir syndgest eigi móte Drottne, og kome ein reide yfer ydur, og ydra brædur: gered so, og þá munud þer eigi syndgast,

11. Siá! Amaria kennemadur er sá hinn ypparste yfer ydur, í ollum málefnum Drottins. So er Sebadia, sonur Ismaels, hofdinge í Juda húse, í ollum kongsins málaferlum. So hafed þer embættismenn Levitana fyrer ydur; vered hugbrauster, og gered þetta, og Drottinn mun vera med þeim enum gódu.

## 20. Capitule.

1. Epter þetta komu Moabs born, og Ammons born, og þeir af Ammunim med þeim, til ad strída imót Josaphat.

2. Og nockur kom, og kunngerde þetta Josaphat, og sagde: þar kemur einn stór hópur á móte þer af Syria, hinumeigenn hafsins, og siá! þeir eru í Hazezon Thamar, þad er, Engeddi.

3. Og Josaphat vard óttasleigenn, og skickade sitt andlit til ad leita Drottins, og hann let úthrópa eina fostu yfer allann Juda.

4. Og Juda kom tilsamans, ad

leita Drottins, og þeir komu af øllum stødum Juda, ad leita Drottins.

5. Og Josaphat geck á millum mannsafnadarins Juda, og Jerusalem, í huse Drottins, fyrer þeim nya garde.

6. Og sagde: Drottinn vorra fedra Gud! ert þú eigi Gud í himnenum, og stiórnar í øllum heidingia kongarikum? og í þinne hende er kraptur, og mattur, og þar er eingenn, sem kann ad standa í móte þer.

7. Hefir þú eige, vor Gud! útreked þessa lands innbyggiara, fyrer þínu fólke Jsrael? og hefir gefed þad sæde Abrahams, sem elskar þig æfennlega,

8. Ad þeir skylldu búa þar inne, og þeir hafa byggt þer þar inne einn helgedom, handa þínu nafne, og sagt.

9. Nær ad nockur ólucka, sverd, refsing, drepsott, edur hallære kemur yfer oss, þá skulum ver standa í þessu húse fyrer þer, (þviad þitt nafn er í þessu húse) og kalla til þín, í vorre neyd, þá viler þú heyra og hiálpa;

10. Siá! nú eru børn Ammons og Moabs, og þeir af fiallenu Seir, yfer hvera þu letst Jsraels børn eigi ferdast, þá þeir ferdudust af Egyptalande, helldur urdu þeir ad víkia frá þeim, og eigi eydeleggia þá.

11. Og siá! nú láta þeir oss gialda þess, og koma ad útskúfa oss af þinne erfd, sem þú hefir gefed oss.

12. Vor Gud! vilt þú eigi dæma þá? þviad eingenn kraptur er med oss á móte þessum stóra fiølda, sem nú kemur á móte oss. Ver vitum eigi hvad ver skulum gera; helldur rennum ver vorum augum til þín.

13. Og allur Juda stód fyrer Drottne, med þeirra børnum, kvinnum, og sonum.

14. Og ande Drottins kom yfer Jehasiel, son Sacharia, sonar Benaja, sonar Jehiel, sonar Mathania Levita, af børnum Assaphs, midt á millum samkundunnar,

15. Og sagde: áthuged þad aller af Juda, og þer innbyggiarar í Jerusalem, og Josaphat kongur, so seiger Drottinn til ydar: þer skulud eigi hrædast ne óttast þennan mikla mannfiølda, þviad þer berest eigi, helldur Gud.

16. Á morgun skulud þer fara ofann til þeirra: og siá! ad þeir ferdast upp til Ziz; og þer munud mæta þeim hiá reyrnum í læknum, þvert yfer frá eydemørku Jeruel.

17. Þviad eigi munud þer stríđa í þessare søk; fared ad eins þangad og standed, og siáed hiálpræd Drottins sem er med ydur. Juda og Jerusalem! óttest eigi, og vered eigi hræddir, fared á morgun út á móte þeim, og Drottinn er med ydur.

18. Þá beigde Josaphat sig nidur til jardar med sínu andlite, og allur Juda, og innbyggiarar í Jerusalem fellu framm fyrer Drottinn, og tilbádu Drottinn.

19. Og Levitarner af Kahathiters børnum, og af børnum Korhiters, biugguft til ad lofa Drottinn Jsraelis Gud, med hárre raustu í himenenn.

20. Og snemma morguns tóku þeir sig upp, og foru út í Thekoa audn. Og sem þeir ferdudust út, þá stód Josaphat og sagde: heyred mig þer af Juda, og þer innbyggiarar í Jerusalem: trúed á Drottenn ydarn Gud, so mun ydur vera óhætt, og trúed hans spamønnum, þá skulud þer fá lucku.

21. Og hann undervísade fólkenu, og sette saungarana fyrer Drottne, ad þeir lofudu í heilagre prýde, ad þeir færu undan þeim vopnada her, og segdu: Þacked Drottne, þvíad hans miskun varer eylíflega.

22. Og sem þeir upphófu ad þacka og lofa, þá let Drottinn þad launsátur, sem komed var imóte Juda, falla yfer Ammons og Moabs børn, og yfer þá af fiallenu Seir, og slóu þá.

23. Þá stódu Ammons og Moabs børn mót þeim af fiallenu Seir, ad drepa þá, og afmá þá. Og sem þeir høfdu eydt þeim øllum af fiallenu Seir, þá hiálpade hver ødrum, so ad þeir og fordiørfudu sig.

24. Enn sem Juda kom til Mizpe, hiá eydemørkenne, þá sneru þeir ser imóte hópnum: og siá! ad þar láu þeir daudu likamer á jørdunne, so ad engenn hafde undann komest.

25. Og Josaphat kom med sínu fólke, ad skipta þeirra herfánge, og þeir fundu á medal þeirra so miked gots og klæde, og kostuleg þíng, sem þeir tóku af þeim, so þeir gátu ei bored þad, og þeir skiptu þvi herfánge út í þriá daga, þvi þad var so miked.

26. Þann fiorda dag komu þeir tilsamans í Lofsdalnum, þvi þeir lofudu þar Drottinn, þar fyrer heiter sá stadur Lofsdalur allt til þessa dags.

27. So snere hver madur af Juda og Jerusalem heim aptur, og Josaphat fremstur, ad þeir færu til Jerusalem med fagnade, þvíad Drottinn hafde gefed þeim eina glede yfer sínum óvinum.

28. Og þeir komu inn í Jerusalem med psallturum, hørpum, og basunum, til Drottins hús.

29. Og Guds ótte kom yfer øll kongaríke í løndunum, þá þeir heyrdu, ad Drottinn hafde barest imót Israels óvinum.

30. So stilltest kongsríke Josaphats, og Gud gaf hønum frid umhverfis.

31. Og Josaphat ríkte yfer Juda, og hann var fimmtau ára og tuttugu ad alldre þá hann vard kongur; enn hann ríkte fimm og tuttugu ár í Jerusalem. Hans moder het Asuba, dotter Silhi.

32. Og hann geck á vegum síns fødurs Assa, og let eigi af ad gera þad sem Drottne líkade vel.

33. Utan þær hæder voru eigi burt teknar, søkum þess, ad fólked hafde enn eigi snúed sínu hiarta til Drottins þeirra fedra Guds.

34. Enn þad sem meira er ad seigia um Josaphat, bæde þad ed fyrsta og sídarsta: siá! þad er skrifad í gerninga bók Jehu, sonar Hanani, sem hann hefir skrifad í Israels konga bók.

35. Epter þad forlíkade Josaphat Juda kongur sig vid Ahasia, Israels kong, hver ed var ógudlegur med sínum gerningum.

36. Enn hann samtók vid hann ad gera skip, sem skylldu fara á sióenn, og þeir gerdu skipenn í Ezeon Gaber.

37. Enn Eliezer, sonur Dodava, af Maresa, spáde mót Josaphat, og sagde: søkum þess, ad þú forlikter þig vid Ahasia, þá hefir Drottinn í sundurslited þinn gerning. Og skipinn brotnudu í sundur, so þau máttu eigi á sió fara.

## 21. Capitule.

1. Og Josaphat sofnade med sínum fedrum, og var jardadur hiá sínum fedrum í borg Davids, og

hans sonur, Joram, vard kongur í hans stad.

2. Og hann átte brædur, syne Josaphats, Asaria, Jehiel, Sacharia, Azaria, Michael, og Sephatia; þesser aller voru børn Josaphats, Juda kongs.

3. Og þeirra fader gaf þeim margar gáfur, í silfre, gulle, og gersemum, med sterkum borgum í Juda. Enn Joram gaf hann kongsríkid, þvi hann var frummgetenn.

4. Nú sem Joram kom upp yfer síns føðurs kongsríke, og feck magt yfer því, þá drap hann alla sína brædur med sverde, so og nockra af høfdingium í Israel.

5. Joram hafde þriátíu og tvø ár þá hann vard kongur, og ríkte átta ár í Jerusalem.

6. Og hann geck á Israels konga vegum, so sem Achabs hús gerde, því dotter Achabs var hans eigenn kvinna, og hann gerde þad sem Drottne misslíkade.

7. Enn þó villde Drottinn eigi fordiarfa Davids hús, søkum þess sáttmála, sem hann hafde bunded vid David, og sem hann mællt hafde, ad gefa hønum, og hans børnum ætíd eitt liós.

8. Á hans døgum fellu Edomitar frá Juda, og settu einn kong yfer sig.

9. Þviad Joram var farenn yferum med sínum høfdingium, og aller vagnar med hønum, og hann tók sig upp á náttarþele, og sló Edomita allt umkring sig, og þá hina yppurstu fyrer vøgnunum,

10. Og því fellu Edomitar frá Juda, allt til þessa dags. Þennann sama tíma fell og Libna frá hønum. Þvi hann fyrerlet Drottinn Gud sinna fedra.

11. Og gerde hæder á fiøllunum Juda, og kom þeim í Jerusalem ad fremia hór, og afvega leidde Juda.

12. Og þar kom eitt bref til hans frá Elia spámanne, þad var so látande; so seiger Drottinn Gud þíns føðurs Davids: søkum þess, ad þú hefir eigi genged á veige þíns føðurs Josaphats, og eige helldur á veige Assa, Juda kongs,

13 Helldur gengur í Israels konga vegum, og gerer þad, ad innbyggendur Juda og Jerusalem fremia hór, epter Achabs húss hórdome, þar ad auk hefir þú drepeð þína brædur af þíns føðurs húse, hverer ed betre voru enn þú;

14. Siá! so skal Drottinn slá þig med stórre plágu, á þínu fólke, á þínum børnum, á þínum kvinnum, og á øllu þínu gotse.

15. Og þú skallt hafa marga siúkdoma í þínum idrum, þar til ad þín innyfle skulu af siúkdome falla út, dag frá deige.

16. So uppvakte Drottinn imót Joram anda Philistinorum og Arabum, sem ad liggia hardt nærre Morlande.

17. Og þeir fóru upp til Juda, yferfellu þá, og í burtu færdu allt þad fe sem ad fannst í kongsins húse, og þar med hans syne og hans kvinnur, so hann hellt eigi epter einum sínum syne, utan Joachas hans yngsta syne.

18. Og epter allt þetta plágade Drottinn hann í hans idrum, med soddann siúkdome sem var olæknanlegur,

19. Og þad vard dag frá deige. Þá tveggia ára tíme var lidenn, þá fellu hans idur frá hønum, med hans siúkleika, so hann dó af vondum sóttum. Og þeir brenndu eigi bál yfer hønum, so sem þeir høfdu gert yfer hans forfedrum.

20. Hann var tolf og tuttugu ára

gamall þá hann vard kongur, og hann ríkte átta ár í Jerusalem. Og hann geck so, ad þar var engenn Þocknan á. Og þeir jordudu hann í Davids stad, enn þó eigi á medal grafa konganna.

## 22. Capitule.

1. Og þeir í Jerusalem gerdu Ahasia hans yngsta son til Kongs í hans stad. Þviad þeir víkingar, sem komu af Arabia, þeir høfdu íhelsleiged alla þá fyrre, og þvi vard Ahasia, sonur Jorams, kongur í Juda.

2. Og Ahasia hafde tvo um fertugt þá hann vard kongur, og hann ríkte eitt ár í Jerusalem, hans moder het Athalia, dotter Amri.

3. Hann geck og á vegum Achabs húss, þvi hans moder hellt hønum þar til, ad hann var ógudlegur.

4. Þvi gerde hann þad sem Drottne illa líkade, líka sem hús Achabs, þvi þeir voru hans rádanente, epter hans fødurs dauda, hønum til fordiorfunar,

5. Enn hann geck epter þeirra rádum, og hann fór med Joram, syne Achabs, Israels konge, í bardaga, til Ramoth, í Gilead, á móte Hasael, konge af Syria. Enn þeir af Syria slóu Joram,

6. Og hann snere aptur ad láta græda sig í Jesreel, þvi hann hafde sár, sem hann feck í Rama, þá hann bardest vid Hasael, kong af Syria, Og Ahasia, sonur Joram, kongur Juda fór ofann til fundar vid Joram, son Achabs, til Jesreel, sem siukur lá.

7. Þvi ad so var ucka var Ahasia tilskickud af Gude, ad hann kom til Joram, og fór so út med Joram, mót Jehu, syne Nimsi, hvern Drottenn hafde smurt til þess, ad eydeleggia Achabs húss.

8. Enn sem Jehu framde straffed á móte huse Achabs, þá fann hann nockra af þeim høfdingium af Juda, og af Ahasia brædra børnum, þeir ed þiónudu Ahasia, og hann sló þá íhel.

9. Enn hann leitade epter Ahasia, og fann hann, þar hann hafde faled sig í Samaria. Og þeir færdu hann til Jehu: hann sló hann íhel, og var jardadur, þvi þeir søgdu: hann er sonur Josaphats, sem leitade epter Drottne af øllu sínu hiarta. Og þar voru enger fleyre til epter af Ahasiá húse, sem kongar yrdu.

10. Enn sem Athalia moder Ahasias sá, ad hennar sonur var daudur, þá tók hún sig upp, og drap allt konunglegt sæde í Juda húse.

11. Enn Josabeath, kongsins syster, tók Joas, son Ahasia, og stal hønum í burt, millum kongsins barna, sem íhel voru sleigenn, og let hann med fóstru sinne í eitt svefnherberge. So fól Josabeath, dotter Jorams kongs, og kvinna Jojada kennemanns, hann fyrer Athalia, (þvi hún var Ahasia syster) ad hann var eigi deyddur.

12. Og hann var geymdur med þeim í Guds húse sex ár, so lenge sem Athalia var drottning í landenu,

## 23. Capitule.

1. Enn á þvi siounda áre tók Jojada eitt øruggt sinne fyrer sig, og tók hundrads høfdingiana, sem var, Asaria, sonur Jerohams, Ismael, sonur Johanan, Asaria, sonur Obed, Maeseja, sonur Adaja, og Elisaphat, sonur Sichri, til eins sambands vid sig.

2. Og þeir ferduðust umkring í Juda, og søfnuðu øllum Levitunum tilsamans, af øllum borgum Juda, og þeim yppurstu fedrum í Israel, að þeir skyllðu koma til Jerúsalem,

3. Og allur almúgenn gerde eitt sáttmál við kongenn, í Guðs húse. Og hann sagde til þeirra: Sjáeð! kongsins sonur skal vera kongur, so sem Drottenn hefir talað um børn Davíðs,

4. Þar fyrer skulud þer nú so gera. Sá hinn þríðe partur af yður, sem gengur inn um þvottdags helgenna, af prestunum, og Levitunum, skal vera hiá þrøskyldenum,

5. Og þríðiungurenn í kongsins húse, og þríðiungurenn hiá grundvallarins porte, enn allt fólked skal vera í gardenum fyrer Drottins húse.

6. Og engenn skal ganga inn í hús Drottins, utann þeir prestar, og Levitar, sem þar þióna, þeir skulu innganga, því að þeir eru helgedomurenn; og allt fólked skal gæta að Drottins varðhallde.

7. Og Levitarner skulu skipa ser í kringum kongenn, hver með sitt vopn í hende. Hver sem gengur inn í húsed, sá skal deya. Og þeir skulu vera hiá kongenum þá hann gengur út og inn.

8. Og Levitarner, og allur Juda, gerdu allt so sem Jojada prestur baud þeim, og hver tók sitt folk, sem geck til þvottdags helgarennar, með þeim sem frá gengu um þvottdagenn, því Jojada kennemadur let eigi þær tvær sveiter skiliast að.

9. Og Jojada kennemadur feck hundraðshøfðingiunum spiót, og skyllde, og kong Davíðs vopn, sem að voru í Guðs húse.

10. Og hann skipade øllu fólkenu, hvern með sitt vopn í hendenne, frá þeirre hægre krá í húsenu, og til þeirrar vinstre krár til alltaresins, og framm í húsed, allt í kring um kongenn.

11. Og þeir frammleiddu son kongsins, og settu koronuna á hann, og vitnisburðenn, og settu hann til kongs, og Jojada með sínum sonum smurde hann, og þeir søgdu: kongenn sie lucka!

12. Sem Athalia heyrde háreyste folksins, þess sem skunðade til, og lofade kongenn, þá geck hún til folksins í Drottins húss.

13. Og hún sá, og siá, þá stóð kongurenn í sínum stað, í inngangenum, og þeir yppurstu, og basunurnar í kringum kongenn, og allt landsfólked var glatt, og blesu í basunurnar, og saungararner með allrahanda streingialeik tilsetter að lofa. Þá reif hún í sundur sín klæde, og sagde; uppreisn! uppreisn!

14. Enn Jojada prestur geck út með þeim æðstu hundraðshøfðingium, sem voru yfer hernum, og sagde til þeirra: leiðed hana af húsenu út yfer gardenn, og hver sem henne fylger epter, sá skal deydast með sverde. Því presturenn baud að menn skylldu eigi deyða hana í húse Drottins.

15. Enn þeir løgdu hendur á hana; og þá þeir komu fyrer hesta portsins inngáng, hiá kongsins húse, þar áslifuðu þeir hana.

16. Og Jojada gerde einn sáttmála mille sín, og almúgans, og kongsins, að þeir skylldu vera Drottins folk.

17. Epter það geck allt folk inn í hús Baals, og brutu það niður. Þeir brutu og í sundur hans alltare, og bílæte, og drápu Mathan, Baals prest fyrer alltarenu.

18. Og Jojada tilsette embætte

í húse Drottins, á medal prestanna, og Levitanna, so sem David hafde ádur skickad í Guds húse, ad færa Drottne brennefórner, eins og skrifad stendur í Moses løgum, med fagnade, og løssaungum, sem David hafde dicktad.

19. Hann sette og dyraverde fyrer ported á Drottins húse, ad ecke óhreint skyllde koma inn á nockurn hlut.

20. Og hann tók þá yppurstu yfer hundrad, og þá megtugu, og stiornarana á medal folksins, og allann lands lydenn, og leidde kongenn ofann frá Drottins huse, og færdu hann inn um þad háfa port til kongsins húss, og letu kongenn setiast á kongs stólenn,

2 . Og allur landsins almúge var gladur, og borgenn stilltest, enn Athalia vard drepenn med sverde.

## 24. Capitule.

1. Joas var siø ára gamall þá hann vard kongur, og hann ríkte fiørutíu ár í Jerusalem. Hans móder het Zibia af BerSeba.

2. Og Joas gerde þad sem Drottne vel þocknadest, so lenge sem Jojada prestur lifde.

3. Og Jojada kvongade hann tveimur kvinnum, og hann átte bæde syne, og dætur.

4. Þar epter tók Joas ser fyrer hendur ad endurbæta Drottins hús,

5. Og hann safnade saman prestum, og Levitum, og sagde til þeirra: fared út til allra stada Juda, og samansafned peningum af øllum Israel, til ad endurbæta ydars Guds hús árlega, og flyted ydur ad gera þad. Enn Levitarner høfdu engann flyter.

6. Þá kallade kongurenn á Jojada þann yppársta, og sagde til hans: Þvi gerer þú eigi ad Levitunum, ad þeir innfære skattenn af Juda, og Jerusalem, so sem Moses Drottins þenare skickade, ad mann skyllde samansafna í Israel, til vitnisburdarens tiallbúdar?

7. Þviad sú ógudlega Athalia, og hennar syner, hafa ofann rifed Guds hús, og allt þad sem helgad var í húse Drottins, þad hafa þeir gert upp aptur til Baalim.

8. Þá baud kongurenn, ad þar skyllde gera eina kistu, og hún skyllde setiast í ported, utann fyrer húse Drottens.

9. Og þeir letu úthrópa í Juda, og Jerusalem, ad inn skyllde flytiast sá Drottins skattur sem Israel var uppá lagdur í eydemørkenne af Mose Guds þenara.

10. Þá gløddust aller høfdingarner, og allt fólked, og færde, og kastade hønum í kistuna, þar til ad hún var full.

11. Enn sem sá tíme kom, ad menn skylldu kistuna frammbera, fyrer Levitana, epter kongsins skipan (þá þeir sáu, ad þar voru mikler peningar í,) kom kongsins skrifari og sá sem hafde bifalning af þeim yppársta preste, og helltu fenu úr kistunne, og báru hana sídan aptur í sinn stad, so gerdu þeir alla daga, so ad þeir søfnudu mørgum peningum tilsamans.

12. Enn kongurenn, og Jojada, gáfu fed erfidismønnunum, sem stódu fyrer erfidenu í Drottins húse, þeir leigdu steinhøggara, og tresmide, til ad endurbæta Drottins hús, og meistara á járn, og kopar, ad endurbæta hús Drottins.

13. Og erfidis-mennerner erfidudu, so ad bótenn á verkenu hafde frammgang, fyrer þeirra hønd,

og þeir gerdu Guds hús med ollu ferdugt, og vel til reika.

14. Enn sem þeir høfdu það fullkomnad, færdu þeir kongenum peningana, og Jojada, þá sem af gengu. Af hverum menn gerdu ker í húse Drottins, ker til þiónustunnar, og til brenneoffursins, skeider, gullker, og silfurker, og þeir offrudu brennefórnum alla tíma í Drottins húse, so lenge sem Jojada lifde.

15. Og Jojada vard gamall, og velalldradur, og dó, og hann var hundrad og þriatíu ára þá er hann dó.

16. Og þeir jørdudu hann í Davids stad, medal konganna, þviad hann hafde gert vel vid Israel, og vid Gud, og hans hús.

17. Enn sem Jojada var andadur, þá komu høfdingiar af Juda, og tilbádu kongenn, þá hlydde kongurenn þeim ad.

18. Og þeir yfergáfu húsDrottins Guds þeirra fedra, og þiónudu lundum og afgudum. Þá kom reide yfer Juda og Jerusalem, søkum þessarar þeirrar syndar.

19. Og hann sende spámenn til þeirra, so þeir skylldu snúa ser til Drottins, og þeir vitnudu fyrer þeim, enn þeir villdu eigi heyra þad.

20. Og Guds ande íklæddestSacharia, syne Jojada kennemanns: hann geck upp yfer fólked, og sagde til þeirra; so seiger Gud: þvi yfertroded þer Drottins bodord? þad mun eigi luckast ydur, þviad þer hafed yfergefed Drottinn, so mun hann og yfergefa ydur aptur.

21. Enn þeir gerdu samtøk í móte hønum, og gryttu hann íhel, epter kongsins skipan, í gardenum hiá Drottins húse.

22. Og kongurinnJoas minntest eigi á þá miskun, sem Jojada, hans fader, veitte hønum, helldur drap hans son. Enn sem hann dó, þá sagde hann: Drottinn mun siá, og utkresia þad.

23. Enn sem þad ár var úte þá fór strídsher upp frá Syria, og þeir komu í Juda og Jerusalem, og fordiørfudu alla þá yppurstu høfdingia á medal folksins, enn sendu út þeirra herfáng til kongsins í Damasco,

24. Þviad magt þeirra Syrlendsku kom med fáa menn. Þá gaf Drottinn eina miøg stóra magt í þeirra hønd, þviad þeir høfdu yfergefid Drottin Gud sinna fedra, og þeir strøffudu miøg Joas.

25. Og þá þeir fóru frá hønum, letu þeir hann epter, í miklum siúkdome. Og hans þenarar bundu sáttmála á móte hønum, vegna blods barna Jojada kennemanns, og drápu hann í hans sæng, og hann dó, og var jardadur í Davids stad, enn þó eigi á medal konganna grafa.

26. Enn þesser voru þeir sem þau samtøk bundu á móte hønum, Sabad, sonur Simeath, hinnar Ammonitisku, og Josabad, sonur Simrith, hinnar Moabitisku.

27. Enn hans syner, og sú summa sem saman var søfnud under hønum, og Guds húsbygging: siá! þad er skrifad í konganna historiu bók, og hans sonur Amazia vard kongur í hans stad.

## 25. Capitule.

1. Amazia var fimm og tutugu ára gamall þá hann vard kongur, og hann rikte níu ár og tutugu í Jerusalem, hans moder het Joadan, af Jerusalem.

2. Og hann gerde þad semDrott=

ne vel þocknadest, enn þó eigi af øllu hiarta.

3. Enn sem hann var stadfestur í sínu kongsríke, þá sló hann sína þenara íhel, þá sem høfdu drepid kongenn hans fødur.

4. Enn þeirra børn drap hann eigi, þviad so stendur þar skrifad í løgmálenu, í Moses bók, þar ad Drottinn bydur, og seiger: fedurner skulu eigi deya fyrer børnenn, eigi helldur børnenn fyrer fedurnar, helldur skal hver deya fyrer sína synd.

5. Og Amazia samankallade Juda, og skickade þá epter þeirra fedra húse, epter høfdingiunum yfer þusund, og yfer hundrad, medal alls Juda og Benjamin, og hann reiknade þá frá tutugu árum, og þar yfer, og fann medal þeirra þríu hundrud þusund útvaldra, sem fær er voru til bardaga, og bera kunnu spiót og skiølld.

6. Þar ad auk tók hann til sín af Israel hundrad þusund sterkra strídsmanna, fyrer hundrad centener silfurs.

7. Enn þar kom einn Guds madur til hans, og sagde: Þu kongur! lát eigi Israels her koma med þer, þvi Drottinn er eigi med Israel, eigi helldur med øllum børnum Ephraims.

8. Þvi ef þú kemur í bardaga til ad syna dirfsku þína, þá mun Gud láta þig falla fyrer þínum óvinum, þviad magtenn stendur til Guds, ad hiálpa, og so til ad láta falla.

9. Amazia sagde til Guds manns: hvad skal þá gera af þeim hundrad centener, sem eg hefe gefid strídsmønnunum af Israel? Guds madur svarade: Drottenn hefir meira enn þad er, þad sem hann kann ad gefa þer.

10. Þá adskilde Amazia þad strídsfolk sem til hens var komid af Ephraim, ad þeir færu til síns stadar. Þá urdu þeir hardla reider vid Juda, og fóru heim aptur til síns stadar, med mikillre reide.

11. Og Amazia vard hughraustur, og færde út sitt folk, og fór út í salltdalenn, og sló þar tíu þusund af børnum Seirs.

12. Og børn Juda tóku til fánga af þeim tíu þusund manna lifande, og leiddu þá uppá eina fialls gnypu, og þeir hrundu þeim ofan fyrer fialls gnypuna, so þeir brustu aller í sundur.

13. Enn þad strídsfolk sem Amazia let fara heim aptur, ad þad være eigi í stríd med hans fólke, þad setteſt nidur um borger Juda, allt frá Samaria og til Beth Horon, og slóu af þeim þríar þusunder manns, og tóku þar mikid herfáng.

14. Nú sem Amazia kom aptur frá þvi slage sem hann veitte þeim Edomitum þá færde hann med ser afgude sona Seirs, og sette þá ser til Guda, og tilbad fyrer þeim, og brennde fyrer þeim reykelse.

15. Þá gramdest Drottins reide yfer Amazia, og sende til hans einn spámann, hver ed sagde til hans: þvi leitar þú þessara folks Guda, sem ad eigi gátu hiálpad sínu fólke af þinne hende?

16. Enn sem hann talade vid hann, þá sagde hann til hans: hafa menn sett þig til kongs rádgiafa? lát af, þvi villtu verda sleigenn? Þá hætte spámadurenn, og sagde: merke eg vel, ad Gud hefir ásett ser ad fordiarfa þig, fyrst þú gerder þetta, og villt eigi adhlyda mínum rádum.

17. Amazia, Juda kongur, afrede þad, og sende burt til Joas, sonar Joachas, sonar Jehu, Israels

kongs, og let seigia honum: kom! og siáe hver ockar annan.

18. Enn Joas, Israels kongur, sende til Amazia, kongs Juda, og let seigia honum: þyrnibuskurenn í Libanon sende til Cedrus í Libanon, og let honum seigia: gef þína dottur mínum syne til kvinnu, enn villudyrenn í Libanon hlupu yfer um þyrnebuskenn, og trádu hann under.

19. Þú hugsar: siá! eg hefe sleiged þá Edomita, af því metnast þitt hiarta, og þú leitar epter hrósun. Nú, ver þú þar heima, eda því leitar þú epter ólucku, so þú faller, og Juda med þer?

20. Enn Amazia hlydde honum eigi, því þad skede af Gude, ad þeir skylldu gefast í hendur, þeirra óvina, fyrer þad þeir höfdu leitad Edomita Guda.

21. Þá fór Joas, Israels kongur, upp, og þeir sáu hver annann, hann og Amazia, kongur Juda, í BethSemes, sem liggur í Juda.

22. Enn Juda fell fyrer Israel, og flyde hver til sinna Heimela.

23. Enn Amaziam, Juda kong, tók Joas, Joachas sonur, Israels kongur, í BethSemes, og flútti hann til Jerusalem, og hann nidur braut murenn í Jerusalem, allt frá Ephraims porte, og allt ad hyrningar portenu, fiögur hundrud álna langt.

24. Hann tók og í burt allt gull og silfur, og öll ker, þau sem voru fyrer hende í Guds húse, hiá Obed Edom, og í fehirdum í kóngsins húse, og flutte börnenn gisla med ser, í Samariam.

25. Og Amazia, sonur Joas, kongur Juda, lifde fimmtan ár epter dauda Joas, sonar Joachas, Israels kongs.

26. Enn hvad meira er ad seigia af Amazia, bæde þad fyrsta og sídarsta: siá! þad er skrifad í bók Juda og Israels konga.

27. Enn frá þeim tíma, sem ad Amazia gaf sig frá Drottne, þá gerdu þeir samband imóte honum, í Jerusalem, enn hann flúde til Lachis, þá sendu þeir epter honum til Lachis, og drápu hann þar.

28. Og flúttu hann á hestum, og gröfu hann hiá sínum fedrum í borg Juda.

## 26. Capitule.

1. Þá tók allur lydur Juda Usiam, hann var sextan ára gamall, og settu hann til kongs í sins födurs stad Amazia.

2. Hann uppbyggde Eloth, og kom henne aptur under Juda, epter þad kongurenn var sofnadur med sínum fedrum.

3. Usia var sextan ára þá hann vard kongur, og hann rikte tvö og fimmtíu ár í Jerusalem. Hans móder het Jechalia, af Jerusalem.

4. Og hann gerde þad sem Drottne vel líkade, eins og hans fader Amazia hafde gert.

5. Og hann leitade Guds, so lenge sem Sacharia lifde, einn lærare í Guds siónum, og so lenge sem hann leitade Drottins, þá let Gud vel luckast fyrer honum.

6. Því hann fór út og strídde mót þeim Philisteis, og nidur braut murenn í Gath, og murenn í Jabne, og murenn í Asdod, enn uppbyggde stade í kringum Asdod, og medal Philisteanna,

7. Því Gud hiálpade honum imóte Philisteunum, móte þeim Arabis, móte þeim í GurBeal, og móte þeim Meuniter.

8. Enn Ammonitar gáfu Usia gáfur, og hann vard nafnfrægur, allt þar til mann kemur í Egyptaland, því hann efldest meir og meir.

9. Usia byggde turn í Jerusalem, hiá hornporte, og dalporte, og hiá ødrum hornum, og gerde þá sterka,

10. Hann byggde og kastala í eydemørku, og gróf marga brunna, þvi hann hafde miked fe, bæde í dalnum, og á slettunne, og akurmenn og víngards-menn á fiøllunum, og hiá Charmel, þvi hann hafde mikla lyst á akurvinnu.

11. Og Usia hafde magt til stríds, sem fóru í bardaga, af stridsmønnum, reiknudum í talid under Jeiels Skrifara, og Maesia embættismanns hende, under Hanania hende, kongsins ædsta stríds høfdingia.

12. Og þeirra yppurstu fedra tala, af sterkum stridsmønnum, voru tvær þusunder sex hundrud.

13. Og under þeirra hende var stridsherenn, þr u hundrud þusund, siø þusund, og fimm hundrud, flickanleg r til stríds, ad fara út í stríd, ad hiálpa kongenum imót óvinum.

14. Og Usia feck þeim fyrer allann herenn, skyllde, spiot, hiálma, bryniur, boga, og steinslongur.

15. Og hann gerde í Jerusalem kunstuglegar vígvelar, sem ad vera skylldu á turnum, og á hornum, til ad skiota út med pílum, og stórum steinum, og hans rikte barst vída út, þvi hønum var serlega hiálpad, þar til ad hann vard megtugur.

16. Og sem hann var megtugur ordenn þá metnadest hann í sínu hiarta, ser til glotunar, þvi hann forsá sig imóte Drottne sínum Gude, og geck inn í mustere Drottins, ad gefa reykelse, ad reykelsis altarid.

17. Enn Asaria kennemadur geck epter hønum, og áttatíge Drottins kennemenn med hønum, hrauster menn.

18. Og stódu ímóte Usia konge, og søgdu til hans: Usia! Eige ber þer ad gefa Drottne reykelse, helldur prestunum Arons børnum, þeir sem eru helgader reykelsed ad gefa. Gack þu út af helgedomenum, þvíad þú misgerer, og þad verdur þer eingenn heidur fyrer Gude Drottne.

19. Enn Usia vard reidur, og hann hellt á einu reykelsis kere í sinne hende, ad gefa reykelse. Og sem hann møglade móte prestunum, kom út líkþrá í hans enne fyrer prestunum, í húse Drottins, framme fyrer reykelsis alltarenu.

20. Og Asaria kennemanna høfdinge snere høfdenu til hans, og aller prestarner, og siá, þá var hann spitelskur í sínu enne og þeir hrundu hønum þar frá. Hann flytte ser og so siálfur ad ganga út, þvi hans plága var af Drottne.

21. So vard nu kongurinn Usia líkþrár allt til síns dauda, og hann bió í einu serlegu húse líkþrár, þvi hann var útrekenn af Drottins húse. Og Jotham, hans sonur sá fyrer kongsins húse, og dæmde fólked í landenu.

22. Hvad sem meira er ad segia um Usiam, bæde þad fyrsta, og sídarsta, þad hefir Esaias spámadur, sonur Amos, uppskrifad.

23. Og Usia sofnade burt med sínum fedrum, og þeir grofu hann hiá hans fedrum, í akrenum hiá konganna leidum, þvi þeir søgdu: hann er líkþrár. Og Jotham, hans sonur, vard kongur í hans stad.

## 27. Capitule.

1. Jotham var fimm og tuttugu ára gamall þá hann vard kongur, og hann rykte sextan ár í Jerusalem, hans moder het Jerusa, dótter Zadoks.

2. Og hann gerde þad sem Drott-

ne vel líkade, so sem hans fader U. zia hafde gert. Utann þad, ad hann geck eigi í Guds musteré, og fólked mannspilltest enn.

3. Hann uppbyggde þad háfa port á húse Drottins, og hann reiste mikla bygging yfer múrnum Ophel.

4. Og hann uppbyggde þá stade á Juda fialle, hann byggde og slot, og turna, í skógunum.

5. Og hann bardest vid kong Ammons barna, og vann sigur á þeim, so ad Ammons børn gáfu hønum þad sama ár hundrad centener silfurs, tíu þusund cor hveites, og tíu þúsund cor byggs. A því øðru áre gáfu Ammons børn hønum slíkt hid sama, og só líka á því þridia áre.

6. So var Jotham megtugur, því hann skickade vegum sínum rettelega fyrer Drottne sínum Gude.

7. Enn hvad meira er ad seigia um Jotham, og af øllum hans bardøgum, og hans vegum, siá, þad er skrifad í Israels og Juda konga bók.

8. Han var fimm ára og tuttugu þá hann vard kongur, og rikte sextan ár í Jerusalem.

9. Og Jotham sofnade med sínum fedrum, og þeir jørdudu hann í Davids stad, enn Achas hans sonur vard kongur í hans stad.

## 28. Capitule.

1. Achas var tvítugur ad alldre þá hann vard kongur, og hann rikte sextan ár í Jerusalem, og han gerde eigi þad, sem Drottne vel þocknadest, so sem David hans fader.

2. Helldur geck hann ad Israels konga vegum. Her ad auk gerde hann Baalim minder steypta.

3. Og hann gaf reykelse í dal Sona Hinnom, og hann brennde sína syne í ellde, epter heidingiana svívirdingum, hveria Drottinn hafde útreked, fyrer Israels børnum.

4. Og hann offrade, og bar reykelse á hædonum, og under øllum blomgudum eikum.

5. Þar fyrer gaf Drottinn hans Gud hann í kongsins hond af Syria, og þeir slóu hann, og fluttu burt mikenn fiølda af hans fonguðum, og høfdu þá til Damascum. Hann var og gefenn under kongsins hønd af Israel, so hann veitte hønum eitt stórt slag.

6. Þviad Pekah, sonur Remalia, sló í Juda hundrad og tuttugu þusunder á einum deige, sem voru aller sterker menn, fyrer því, ad þeir fyrerletu Drottinn þeirra fedra Gud.

7. Og Sichri, einn volldugur madur af Ephraim, drap Maeseia, son kongsins, og Asrikam, þann ypparsta høfdingia fyrer kongsins húse, og Elkana þann sem næstur var kongenum.

8. Og Israels børn fluttu hertekna í burtu, sína brædur, tvo hundrud þusund kvinnur, syne, og dætur, og tóku þarmed miked herfáng frá þeim, og fluttu þad herfáng til Samariam.

9. Og þar var einn spámadur Drottins, sem het Oded, hann geck út ímóte þeim sama her, sem kom til Samaria, og sagde til þeirra: siá, fyrst ad Drottinn yd[...]a fedra Gud er ordenn reidur yfer Juda, þá gaf hann þá í ydrar hendur. Enn þer hafed só grimmlega drepeð þá, so þad tekur upp í himenenn.

10. Nu hugsed þer ad þryckia under ydur Juda kø[...]n, og Jerusalem, til þræla, og amb[...]tta. Er þar þá eigi skulld [...] ydur ímóte Drottne ydrum Gude?

11. Þar fyrer hlyded mer nu,

og færed þá herteknu aptur tilbaka, þá sem þer hafed í burt leidt af ydrum brædrum, þviad Drottins reide er grøm yfer ydur.

12. Þá tóku sig upp nockrer af þeim yppurstu, af børnum Ephraims, Asaria, sonur Johanan, Berechia, sonur Messillemoth, Jehiskia, sonur Sallum, og Amasa, sonur Hadlai, imóte þeim sem komu frá bardaganum.

13. Og søgdu til þeirra: eige skulud þer færa þá herteknu inn hingad, þvi þer þeinked eigi utann alleina skulld yfer oss fyrer Drottne, só ad þer gered vora synd og skulld þess meire. Þviad skulldenn er ofmiøg stór, og reidenn yfer Israel upptendrast.

14. Þá let strídsfólked allá fángana lausa, og lagdi herfánged nidur fyrer høfdingiana, og fyrer allann søfnudenn.

15. Þá uppstódu þeir menn, sem eru á nafn nefnder, og tóku þá fángana, og þá alla sem nakter voru af þeim, klæddu þá af herfángenu: þeir klæddu þá, og skæddu þá, og gáfu þeim bæde mat, og drick, og smurdu þá; og alla þá, sem veiker voru slutttu þeir á øsnum, og færdu þá til Jericho, til þess palmavidar stadar, hiá þeirra brædrum, og þeir komu aptur í Samariam.

16. Á þeim sama tíma sende Achas kongur til konganna af Assur, ad þeir skylldu veita hønum lid.

17. Því þeir Edomitar komu inn aptur, og slóu Judam, og fluttu nockra í burt.

18. Og Philistei løgdust inn í stadena á slettlendenu, sunnan til á móte Juda, og unnu Beth Semes, Aialon, Gederoth, og Socho med hennar dætrum, og Thimna med hennar dætrum, og Gimso med hennar dætrum, og bygggu þar.

19. Þviad Drottinn nidurþryckte Juda, fyrer skulld Achas, Juda kongs, sokum þess, ad hann gerde Juda nakenn, og hann misgerde á mote Drottne.

20. Og Tiglath Pilnesser, kongurenn af Assur, kom til hans, setta est um hann, og styrkte hann eigi.

21. Þvi Achas skipte húse Drottins, og kongsins húse, og høfdingianna, ad hann giæfe kongenum af Assur, enn þad hiálpade hønum eigi þar.

22. Her ad auk í neydenne, jók kongurinn Achas yfertrodslur sínar fyrer Drottne.

23. Og offrade til Gudanna í Damasco, sem hann høfdu sleiged, og sagde: kongsins Guder af Syria hiálpudu þeim, þvi vil eg þeim offra, só þeir hiálpe mer einnenn, þar þeir þó urdu hønum, og øllum Israel, eitt fall.

24. Og Achas safnade kerønum tilsamans í Guds húse, og braut keren í Guds húse, og luckte dyrnar á húse Drottins, og gerde ser alltare á hverre hyrningu í Jerusalem.

25. Og í borgum Juda gerde hann hæder, her og hvar, til ad gefa annarlegum Gudum reykelse, og reitte til reide Gud sinna fedra.

26. Hvad meira er ad seigia um hann, og um alla hans vegu, bæde þá fyrstu, og sídurstu, siá, þad er skrifad í Juda og Israels konga bók.

27. Og Achas sofnade med sínum fedrum, og þeir grófu hann í borgenne Jerusalem, enn eige færdu þeir hann á medal grafa Israelis konga. Og hans sonur Ezechias vard kongur í hans stad.

## 29. Capitule.

1. Ezechias hafde fimm um tvítugt þa hann vard kongur, og ríkte níu ár og tuttugu í Jerusalem, hans moder het Abia, dótter Zachariæ.

2. Og hann gerde þad sem Drottne vel þocknadest, só sem hans fader David.

3. A fyrsta mánade þess fyrsta árs síns kongs ríkis let hann upp dyrnar á huse Drottins, og gerde þær rambyggdar.

4. Og hann leidde kennemenn, og Levitana, inn hangad, og saman safnade þeim á þuí breida stræte á mot austre.

5. Og sagde til þeirra: þer Levitar heyred mig! Helged ydur nu, só ad þer meiged og helga Drottins Guds ydars fedra hus, og bered þad óhreina út af helgedómenum.

6. Þviad vorer fedur hafe mis gert, og gert þad sem Drottne vorum Gude illa líkade, og hafa yfergefed hann. Þvi þeir sneru sínu andlite frá Drottins hybyle, og sneru sínu bake vid þvi.

7. Og hafa læst dyrunum á forhúsenu, og útslockt lampana, og gerdu eckert reykelsis verk, ei helldur brennefórner Israels Gude í helgedómenum.

8. Og sökum þvilíks er Drottins reide komenn yfer Juda og Jerusalem, og hann hefir gefed þá í sundurdreifing, og í foreydslu, só sem þer siáed med ydrum augum.

9. Þviad: siáed! þess vegna eru vorer fedur fallner fyrer sverde, vorer syner, dætur, og kvinnur í burt sluttar.

10. Nú hefe eg þad í sinne, ad gera eitt sáttmál vid Drottinn Israels Gud, só ad hans reide og grimmd snúe ser frá oss.

11. Nú míner syner! fared eigi villt, þviad ydur hefir Drottinn utvaled, ad þer skulud standa fyrer honum, og ad þer skulud vera hans þenarar, og gefa reykelse.

12. Þá tóku Levitarner sig upp, Mahath, sonur Amasai, og Joel, sonur Asaria, af børnum Kahaths. Og af børnum Merari, Kis, sonur Abdi, og Asaria, sonur Jehaleleel. Enn af børnum Gerson, Joab, sonur Simma, og Eden, sonur Joah.

13. Og af børnum Elizaphans Simri og Jeiel Og af Assaphs børnum, Sacharia, og Mathania.

14. Og af børnum Hemans, Jehiel og Semei. Og af børnum Jedithun, Semaea, og Usiel.

15. Og þeir samansøfnudu sínum brædrum, og helgudu sig, og gengu inn epter kongsins bode, af Drottins orde, ad hreinsa hús Drottins.

16. Og kennemennerner gengu inn í innsta hluta af húse Drottins, ad hreinsa, og báru allann þann óhreinleika (sem fundenn var í mustere Drottins) út í gardenn, fyrer húse Drottins, enn Levitarner tóku þad upp, og báru út í lækenn Kidron.

17. Og þeir tóku til á þeim fyrsta deige þess fyrsta mánadar ad helga sig, og á þeim áttunda deige í sama mánude geingu þeir inn í Drottins forhús, og helgudu hús Drottins í átta daga, og fullkomnudu þad á sextanda deige í þeim fyrsta mánade.

18. Og þeir gengu inn fyrer kong Ezechiam, og sögdu: ver høfum hreinsad allt hús Drottins, brenneoffurs alltared, og øll þess verkfære, borded, skodunarbraudenn, og øll þau verkfære er þar til heyra.

19. Og øll kerenn sem kongurinn

Achas burtkastade, þá hann var kongur, þá hann syndgade, þau høfum ver tilbúed og helgad, siá: þau eru fyrer alltare Drottins.

20. Þá tók kongurinn Ezechias sig snemma upp, og samansafnade þeim yppurstu í stadnum, og geck upp í hús Drottins.

21. Og leiddu þar frammad sio uxa, og sio hrúta, sio lømb, og sio hafra, til synda-offurs, fyrer kongs ríked, fyrer helgedomenn, og fyrer Juda. Og hann sagde til prestanna, Arons barna: ad þeir skylldu fœra fórner yfer alltare Drottins.

22. Þá slátrudu þeir uxum: og prestarner tóku blóded, og stocktu því á alltared. Þeir slátrudu og hrútunum, og stocktu blódenu á alltared, og þeir slátrudu lømbunum, og stocktu blódenu á alltared.

23. Og þeir leiddu hafrana framm til syndaoffurs fyrer kongenn, og almúgann, og þeir løgdu sínar hendur yfer þá.

24. Og prestarner slátrudu þeim, og hreinsudu þeirra blód á alltarenu, til ad forlíka allann Israel. Þvíad kongurenn hafde bífalad ad gera brenneoffur, og syndaoffur fyrer allann Israel.

25. Og hann skickade Levitana í Drottins húse, med cymbalis, psølltrum, og hørpum, so sem David hafde þad bifalad, og Gad, kongsins siáande, og Nathan spámadur, því þad var Drottins bod fyrer hans spámenn.

26. Og Levitarner stódu med streingiahliodfœrum Davids, og prestarner med basunum.

27. Og Ezechias baud þeim ad gera brenneoffur á alltarenu. Og á þeim sama tíma, þá þeir tóku til ad fœra brenneoffur, þá upphofst og saungur Drottins, med basunum, og á allrahanda streingleikum Davids Israels kongs.

28. Enn allur almúgenn badst fyrer: og saungaranna saungur, og trametaranna básunur varde allt tilsamans til þess ad brenneoffred var fullkomnad.

29. Sem nú ad brenneoffred var fullkomnad, þá laut kongurenn nidur, og aller þeir sem hiá hønum voru, og bádust fyrer.

30. Og Ezechias kongur, med høfdingiunum, baud Levitunum ad lofa Drottinn, med dickt Davids, og Assaphs siáanda, og þeir lofudu med glede, hneigdu sig, og bádu hann.

31. Og Ezechias svarade og sagde: Þer hafed nú uppfyllt ydrar hendur Drottne, fared nú til, og bered hingad fórner, og lofgerdar offur í hús Drottins. Og almúgenn fœrde þangad fórner, og lofgerdar offur, og hver madur brennefórner af þeirra siálfviliugu hiarta.

32. Enn talann á þeim brennefórnum sem almúgenn bar framm, var siøtíu uxar, hundrad hrútar, og tvø hundrud lømb, og þad allt saman til brennefórnar Drottne.

33. Og helgudu sex hundrud uxa, og þríu þusund saude.

34. Enn prestarner voru of-fáer, so þeir gátu eigi teked skinned af øllum brennefórnunum, og því tóku þeir Levitana sína brœdur til sín, so lenge sem þesse þiónusta vard fullkomnud, og þar til ad prestarner helgudu sig, þvíad Levitana var audvelldara ad helga enn kennemennena.

35. Enn brenneoffred var miked, med þackaroffursins feitleika, og dryckiaroffred til brenneoffursins, so vard embætted fullkomnad í húse Drottins.

36. Og Ezechias gladdest med øllu fólkenu, ad menn voru ordner tilbúner fyrer Gud, þviad þad skede so skiótlega.

## 30. Capitule.

1. Ezechias sende út til alls Israels, og skrifade bref til Ephráim, og Manasse, ad þeir skylldu koma til Drottins húss í Jerusalem, til ad hallda páska Drottne Israels Gude.

2. Kongurenn hellt og eitt rád vid sína høfdingia, og vid allann søfnudenn í Jerusalem, ad hallda páska í ødrum mánude.

3. Þvi þeir gátu eigi hallded þá í þeirre sømu tíd, þviad kennemennerner voru eigi nóg helgader, so og vár eigi fólked helldur komed saman til Jerúsalem.

4. Þetta líkade kongenum vel, og øllum saufnudenum.

5. Og þeir tilsettu, ad þad vard úthrópad yfer allann Israel, frá BerSeba, og allt til Dan, ad þeir skylldu koma, og hallda Drottins Israels Guds páska í Jerusalem, þvíad þeir voru eige halldner í langa tima, so sem skrifad stendur.

6. Og hlaupararner geingu af stad med brefum frá kongsins, og hans høfdingia hende, um allann Israel og Juda, epter kongsins skipan, og søgdu: Þer Israels børn! snúed ydur aptur til Drottins Guds Abrahams, Isaacs, og Israels, so mun hann snúa ser til þeirra sem epter eru, þeir sem enn nú eru epter á medal ydar af kongsins høndum í Assyria.

7. Vered eigi sem ydrir fedur, og brædur, hverer syndgudust mót Drottne þeirra fedra Gude, og hann gaf þá til eydeleggingar, so sem þer siálfer siáed.

8. So vered eigi nú hardhnackader, so sem ydrir forfedur, helldur gefed Drottne ydra hønd, og komed til hans helgedoms, sem hann hefir helgad æfinnlega, og þiónid Drottne ydrum Gude, þá mun grimmd hans reide snúast frá ydur.

9. Ef þer snúed ydur til Drottins, þá munu ydrir brædur, og børn, fá miskunseme, af þeim sem þá hallda hertekna, so ad þeir kome aptur í landed. Þviad Drottenn ydar Gud er nádugur, og miskunsamur, og hann mun eigi snúa sínu auglite frá ydur, ef þer snúed ydur til hans.

10. Og þeir hlauparar gengu frá einum stad, og til annars, í lande Ephraim, og Manasse, og allt til Sebulon; enn þeir hæddu, og spottudu þá.

11. Þó voru þeir nockrer sem sig audmyktu, af Asser, Manasse, og Sebulon, og komu til Jerusalem.

12. Og í Juda kom Guds hønd, so hann gaf þeim eitt samhugad hiarta, ad gera epter kongsins bode, og høfdingianna, út af Drottins orde.

13. Og þar kom ofurmargt folk tilsamans í Jerusalem, ad hallda þeirra ósyrdu brauda hátíd, í þeim ødrum mánade, einn mikill folks fiølde.

14. Og þeir biuggu sig til, og nidurbrutu aullturenn, sem voru í Jerúsalem, og burttóku allt reykelsins verk, og køstudu þeim í lækenn Kidron,

15. Og þeir slátrudu páskunum þann fiortanda dag í þeim ødrum mánade. Og prestarner, Levitarner, medkenndu sínar skammer, og helgudu sig, og báru brennefórner til Drottins húss,

16. Og þeir stódu í sinne skipan, so sem heyrde, epter Mose Guds

mans løgmále. Og prestarner støcktu blodenu af Levitanna høndum.

17. Þvi þeir voru marger í sø nudenum sem eigi høfdu helgad sig. Þvi slátrudu Levitarner paskunum fyrer alla þá sem eigi voru hreiner, ad þeir skylldu verda helg ader fyrer Drottne.

18. Þar var og margt folk af Ephraim, Manasse, Isaschar, og Sebulon, þeir sem eigi voru hrein er, enn þeir átu páskalambed eigi so sem skrifad stendur. Þviad Ezechias bad fyrer þeim, og sagde: Drottinn, sá sem gódur er, hann mun miskuna sig yfer þá,

19. Sem sticka sínu hiarta ad leita Drottins þeirra fedra Guds, þó ad þeir seu eigi epter helgedómsins hreinleika.

20. Og Drottinn bænheyrde Ezechiam, og læknade fólked.

21. So helldu Israelis børn, þau sem fundenn voru í Jerusalem, ósyrdra brauda h tid, í siø daga, med miklum fagnade. Og prestarner, og Levitarner, lofudu Drottinn alla daga, med Drottins sterkum streingialeik.

22. Og Ezechias talade vinsamlega vid alla Levitana, hverer góðann skilning høfdu á Drottne, og þeir neyttu hátídarennar í siø daga, og offrudu þackaroffre, og þøckudu Drottne þeirra fedra Gude.

23. Og øllum almuga kom þad ásamt, ad hallda skyllde enn adra siø daga, og þeir helldu og so þá siø daga med fagnade.

24. Þvi Ezechias kongur Juda gaf eina uppløyting fyrer almúgann, þusund uxa, og siø þusund sauda. Enn høfdingiarner gáfu fyrer almugann eina uppløyting, þusund uxa, og tíu þusund sauda, so helgudu sig marger kennemenn.

25. Og allur søfnudur í Juda gladde sig, og prestarner, og Levitarner, og s a allur almuge sem komenn var af Israel, og þeir útlendu af Israels lande, og þeir sem biuggu í Juda.

26. Og þar var einn stór fagnudur í Jerusalem, þvi frá tíd Salomons, sonar Davids, Israels kongs hafde engi þvilíkur vered í Jerusalem.

27. Og prestarner, og Levitarner stódu upp, og blessudu fólked, og þeirra rødd, bænheyrdest, og þeirra bæn kom inn fyrer hans heilaga bústad í himenenn.

## 31. Capitule.

1. Enn sem þetta var nú allt fullkomnad þá fór Israel, sem fannst í Juda børgum, og sundurbrutu skurgodenn, og nidurhiuggu lundana, og brutu nidur hædernar, og ølturenn, í øllum Juda, Benjamin, Ephraim, og Manasse, allt til þess þeir høfdu alldeilis eydelagt þá. Og Israels børn fóru øll aptur til sinna gotsa, og sinna borga.

2. Og Ezechias stickade prestana, og Levitana í þeirra skipaner, huern epter sínu embætte, bæde prestana, og Levitana, til brenneførnanna, og þacklætisfórnanna, ad þeir skylldu þióna, þacka, og lofa, í herbudar dyrum Drottins.

3. Og kongurenn gaf sinn part af sínu gotse, til brenneoffurs, bæde á morgna, og á kvølld, og til brenneoffurs, sabbathsdagsins, og nymánadar, og hatídanna, so sem skrifad stendur í løgmále Drottins.

4. Og hann sagde til folksins þess sem bió í Jerusalem: ad þeir skylldu gefa prestunum, og Levitunum, einn hlut, til þess, ad þeir mætti þess fastara hallda vid løgmál Drottins.

5. Og sem þad ord kom út, þá

g'fu Israels børn miked af þeim fyrsta gróda af korne, víne, vidsmiøre, hunánge, og af allshættadre innteckt af mørkenne, og þeir færdu þeim miked inn af allrahanda tíundum.

6. Og Israels og Juda børn, sem bíuggu í Juda stødum, færdu og tíunder af nxum, og saudum, og so tíund af þvi sem helgad var, sem þeir høfdu helgad Drottne sínum Gude, og gerdu her eina hrúgu, og þar eina hrúgu.

7. J þeim þridia mánude tóku þeir til ad leggia þetta tilsamans, enn í þeim siøunda mánude fullkomnudu þeir þetta.

8. Enn sem Ezechias, og høfdingiarner gengu inn, og sáu hrúgurnar, þá lofudu þeir Drottinn, og hans folk Israel.

9. Og Ezechias spurde prestana, og Levitana ad, um hrúgurnar.

10. Enn Asaria, sá ypparste kennemadur í húse Zadochs, sagde til hans: frá þeim tíma sem menn tóku til ad bera framm upplyptingar til húss Drottins, þá høfum ver eted, og sadder orded, og þó er enn miked afgangs. Þviad Drottinn hefir blessad sitt folk, þvi er þetta samansafn afgenged.

11. Þá baud kongurenn, ad þar skylldu gerast kistur hiá húse Drottins, ad þeir tilbiuggu þær.

12. Og løgdu þar í upplyptingarnar, tíunder, og þad sem helgad var, trúlegana. Og sá Levite sem het Chanania var skickadur til eins høfdingia þar yfer, og Simei, hans broder, annar.

13. Og Jehiel, Asasia, Nagath, Asahel, Jerimoth, Josabath, Eliel, Jesmachia, Mahath, og Benaia, tilsetter af Chanania, og Simei hans broders hende, epter kongs Ezechiæ skipan. Enn Asaria var høfdinge í Guds húse.

14. Og Core, sonur Jemna, sá Levite, dyravørdurenn imót austre, var yfer Guds frivilugum gefum, ad útskipta þeim, sem Drottne voru gefnar, til upplyptingar, og yfer þad allrahelgasta.

15. Og under hans hende voru þesser: Eden, Miniamin, Jesua, Semaia, Amaria, og Sechania, í prestanna stødum, ad þeir skylldu gefa þeirra brædrum, epter þeirra skickan, þeim minnsta, so sem hinum stærsta.

16. Þar med þeim sem voru reiknader af karlkyne, briggia ára gamler, og þadann af elldre, á millum allra þeirra, sem gengu í Guds mustere, hver á sínum deige, til síns embættis, í þeirra vardhallde, epter þeirra skickan.

17. Og þeim sem reiknader voru fyrer prestana, í þeirra fedra húse, og Levitunum frá tvitugs alldre, og þar yfer, í þeirra vardhallde, epter þeirra skickan.

18. So og þeim sem reiknader voru á millum þeirra barna, kvenna, sona og dætra, á medal alls almúgans, þvi þeir helgudu trúlega þad heilaga.

19. Og þar voru menn med nafne tilnefnder yfer børn Aarons prests, á lande forstadanna, í øllum stødum, ad þeir skylldu gefa øllu karlkyne á medal prestanna, einn part, og so líka øllum þeim sem reiknader voru á millum Levitanna.

20. So gerde Ezechias í øllum Juda, og gerde hvad gódt, og rett, og sannarlegt var fyrer Drottne sínum Gude.

21. Og í øllum hans gerningum, sem hann upphóf, í Guds húss þiónustu, epter løgmálenu, og bodordunum, ad leita síns Guds, þad

gerde hann af øllu hiarta, og þvi hafde hann luckn.

## 32. Capitule.

1. Epter þessa gerninga, og truskap, kom Senacherib, kongur af Assyria, og fór inn í Juda, og settest (med herskyllde um þær sterku borger, og þeinkte ad hrifsa þær til sín.

2. Sem Ezechias sá þad, ad Senacherib kom, og hans andlit stód til at strída mót Jerusalem,

3. Þá kom hønum þad ásamt med sínum høfdingium, og magtarmønnum, ad þeir skylldu apturbyrgia vatned af brunnunum, sem voru utann borgar, og þeir stirktu hann.

4. Kom þá saman mikell mannfiølde, og hann byrgdi aptur alla þá brunna, og rennande vøtn midt í landenu, og søgdu: ad kongarner af Assyria skylldu eigi sinna miked vatn nær þeir kæmu.

5. Og hann hughreystest, og byggde alla múra, hvar þeir voru brotner, og gerde turna þar yfer, og hann byggde einn annann mur þar utann fyrer, og stirkte Millo hiá borg Davids, og gerde mørg vopn, og skiølldu.

6. Og hann sette høfudsmenn til strids hiá fólkenu, og kallade þá til sín á þad breida stræte hiá stadarins porte, og talade hiartnæmilega vid þá, og sagde:

7. Hafed godt traust og vered óskelfder. Ottest eigi, og vered eigi hræddir fyrer kongenum af Assyria, ei helldur fyrer øllum þ im fiølda, sem med hønum er, þviad sá er meire sem med oss er, helldu enn med hønum.

8. Med hønum er holldlegur armleggur, enn Drottinn vor Gud er med oss, til ad hialpa oss, og heyja vort strid. Og fólked treyste uppá ord Ezechiæ kongsins af Juda.

9. Þar epter sende Senacherib, kongur af Assyria, sína þenara til Jerusalem (þvi hann lá fyrer Lachis, og allur hans stridsher med hønum,) til Ezechiam, kongs Juda, og til alls Juda, sem var í Jerusalem, og let þeim seigia:

10. So seiger Sennacherib, kongur af Assyria: á hverum hafed þer traust, þer sem búed í þeirre umkringdu Jerusalem?

11. Ezechias tæler ydur med ordum, ad hann sele ydur í daudann, hungur, og þorsta, og seiger: Drottinn vor Gud mun frelsa oss af hende kongsins af Assyria.

12. Er hann eigi sá Ezechias, sem í burt hefir teked hans hæder, og alltare, og sagt til Juda, og Jerusalem: fyrer einu alltare skulud þer tilbidia, og þar yfer reykelse brenna.

13. Vited þer eigi, hvad eg og míner forfedur hafa gért øllu fólke í løndunum? hafa nockud heidingianna Guder í nockrum løndum getad frelsad þeirra lønd af minne hende?

14. Hver er sá á medal allra þessara heidingia Guda, sem ad míner fedur hafa foreydt, ad þeir hafe kunnad ad frelsa sitt folk frá minne hende, so ad ydrir Gud skyllde geta frelsad ydur undann minne hende?

15. Láted nú eigi Ezechiam svíkia ydur, og láted ydur eigi so tæla med ordum, og trúed hønum eigi, þvi, ef ad engenn af øllum heidingianna og konganna Gudum gat sitt folk frelsad af minne, og minna fedra hende, þá munu eigi helldur ydrir Guder geta frelsad ydur frá minne hende.

16. Þar ad auk tøludu hans þienar enn nú meira imóte Gude Drottne, og imóte hans þión Ezechia.

17. Hann skrifade og bref til ad hæda Drottinn Israels Gud, og talade um hann; og sagde: so sem heidingianna Guder í løndunum hafa eigi frelsad sitt folk undann minne hende, so skal eigi helldur sá Gud Ezechiæ frelsa hans folk undann minne hende.

18. Og þeir hrópudu med hárøyste, í Gydinga mále, til folksins í Jerusalem, sem var uppá múrnum, ad gera þá hrædda, og skelfda, so þeir gætu unned borgena.

19. Og þeir tøludu á móte Gude Jerusalems, líka sem á móte þióda na Gudum á jørdu, sem ad eru handaverk mannanna.

20. Enn Ezechias konongur, og Esaias spámadur, sonur Amos, þeir bádu imót, og kølludu upp í himenenn.

21. Og Drottinn sende einn engel, hver ed afmáde alla magtarmenn herþins, og høfdingia og høfudsmenn í Assyria kongs herbúdum, so hann fór heim aptur í sitt land med sneypu. Enn sem hann geck inn í síns Guds hús slóu þeir hann þar íhel med sverde, þeir sem komner voru af hans eigenn líse.

22. So hiálpade Drottinn Ezechia konge og þeim í Jerusalem, af hende Senacheribs, kongs af Assyria, og allra annara, og hann vardveitte hann fyrer øllum allt í kring.

23. So ad marger báru Drottne gáfur til Jerusalem, og so Ezechia Juda konge Gersemar. Og epter þetta vard hann upphafenn fyrer øllum heidingium.

24. Í þann tíma vard Ezechias haudsiukur, og hann bad Drottinn, og hann het hønum og gaf hønum eitt teikn.

25. Enn Ezechias bitalade eigi epter því so sem hønum var gefed, þviad hans hiarta metnadest, søkum þess fell reide yfer hann, og yfer Juda, og Jerusalem.

26. Enn Ezechias audmykte sig, ad hans hiarta hafde metnast: so og líka þeir í Jerusalem, þar fyrer kom reide Drottins eigi yfer þá, so lenge sem Ezechias lifde.

27. Og Ezechias hafde miøg mikel audæfe og dyrd, og safnade ser fesiódum, af silfre, gulle, gimsteinum, dyrdlegum kryddum, skiølldum, og allrahanda kostulegum hlutum.

28. So og kornhlødur til kornsins inntekta, víns og vidsmiørs, og stallhúsum, fyrer allsháttadann fenad, so og saudahús fyrer saudfe.

29. Og hann byggde ser borger, og hafde yfersliótanlegann fenad sauda og uxa, því Gud gaf hønum miøg mikel audæfe.

30. Hann er sá Ezechias, sem byrgde aptur hann háfa uppsprettubrunn í Gihon, enn veitte hønum nidur under, vestan ad borg Davids, þviad Ezechia luckadest allt þad sem hann gerde.

31. Enn þá høfdingianna sendemenn af Babylon voru sender til hans, ad spyria hann ad þeim undrum, sem sked høfdu í landenu, þá yfergaf Gud hann, so ad hann freistade hans, uppá þad, ad allt þad sem var í hans hiarta yrde openbert.

32. Hvad meira er ad seigia um Ezechiam, og hans miskunsemder: siá! þad er skrifad í syn Esaie spámanns, sonar Amos, í Juda og Israels konunga bók.

33. Og Ezechias sofnade med sínum fedrum, og þeir jørdudu

hann yfer grøfum Davids barna. Enn allur Juda, og þeir í Jerusalem, gerdu hønum virding í hans dauda, og hans sonur Manasses vard kongur í hans stad.

## 33. Capitule.

1. Manasses var tolf ára gamall þá hann vard kongur, og hann rikte fimm og fimmtíu ár í Jerusalem.

2. Og gerde þad sem Drottne illa likade, epter heidingianna svívirdingum, hvera ad Drottinn útrak fyrer Israels børnum.

3. Og hann umsnere ser, og uppbygde þær hæder sem hans fader Ezechias hafde nidurbroted, hann reiste Baal alltare, gerde lunda, og tilbad allann himensins her, og þiónade þeim.

4. Hann bygde og alltare í húse Drottins, um hvert ad Drottinn hafde talad: í Jerusalem skal mitt nafn vera æfenlega.

5. Hann bygde og alltarenn í bádum Drottins húss forgørdum, til alls h[illegible]ttads himensins hers,

6. Og let sína syne ganga í gegnum eld, í Hinnoms sona dal. Hann útvalde daga, og gaf gætur ad fugla kvake, og framde galldra, og tilskickade spáfarar menn, og teikna þýdara, og gerde margt þad sem Drottni illa likade, ad styggia hann med.

7. Hann sette og likneske og afgude, sem hann hafde gera láted í Guds hús, um hvad Drottinn hafde sagt til Davids og Salomons, hans sonar: í þessu huse og í Jerusalem, hvera eg hefe útvaled fyrer øllum Israelis kynkvíslum, vil eg setia mitt nafn æfenlega.

8. Og eg vil eigi framar meir láta Israel vikia fæte af landenu, hvert eg skickade fedrum þeirra, so framt sem þeir hallda ser til ad gera allt þad sem eg hefe boded þeim, fyrer Mosen, í øllu løgmálenu, bodum og rettindum.

9. Enn Manasses villte Juda, og þá í Jerusalem, so þeir gerdu verr enn þeir heidingiar sem Drottinn hafde í eydelagt fyrer Israels børnum.

10. Og þá Drottinn let tala vid Manasses og hans folk, þá gáfu þeir engar gætur ad því.

11. Þar fyrer let Drottinn koma yfer þá kongsins hershøfdingia af Assyria. Þeir settu Manasses í fiøtur, med jarnbolltum, og bundu hann med vidium, og flúttu hann í Babylon.

12. Enn sem hann var komenn í þá angist, þá grátbænde hann Drottinn sinn Gud, og audmykte sig miøg fyrer Gude sinna fedra.

13. Og bad, og sárbænde hann. Þá heyrde hann hans bæn, og færde hann aptur í Jerusalem í sitt kongsrike. Þá þeckte Manasses, ad Drottinn være Gud.

14. Epter þad uppbygde hann þann ytsta múr um Davids stad, frá vestre til Gihon í læknum, þar genged er inn í Fiskported, og allt umkring til Ophel, og gerde hann miøg háfann, og sette høfudsmenn í fasta stade í Juda.

15. Og tók í burt þá annarlegu Gude, og þau skúrgod úr húse Drottins, og øll aulltaru, þau hann hafde bygt á Drottins húss biargia og í Jerusalem, og kastade ut fyrer borgena.

16. Enn alltare Drottins reiste hann, og offrade þar á þackaroffur, og løfgerdaroffur, og baud Juda, ad þeir skylldu þióna Drottne Israels Gude.

17. Enn þó offrade fólked á hæd-

unum samt, enn þó Drottne Gude sínum.

18. Hvad sem meira er ad seigia um Manasses, og um hans bæn til hans Guds, og um ord þeirra siáandanna sem toludu vid hann í nafne Drottins Israels Guds: siá! þad er á medal Israels konga gerninga.

19. Og hans bæn og ákall, og hans allar synder og misgerningar, og þeir stader á hverum hann bygde þær hæder, og sette þá lunda og afgude, fyrr enn hann vard audmyktur: siá! þad er skrifad í gerningum siáandanna.

20. Og Manasses sofnade med sínum fedrum, og þeir jordudu hann í hans húse, enn Amon, hans sonur, vard kongur í hans stad.

21. Amon hafde tvo um tvitugt þá hann vard kongur, og hann ríkte tvo ár í Jerusalem.

22. Og hann gerde þad sem Drottne illa þocknadest, eins sem hans fader Manasses hafde gert. Og Amon færde fórner til allra afguda, sem hans fader Manasse hafde gert, og þiónade þeim.

23. Enn hann audmykte sig ei fyrer Drottne so sem hans fader Manasses audmykte sig, þvi Amon gerde margfallda synd.

24. Og hans þenarar bundu sáttmál á móte honum, og drápu hann í hans húse.

25. Enn landsfólked drap þá alla sem þad sáttmáls-band hofdu gert á móte Amon konge. Og landsfólked tók Josiam, hans son, til kongs í hans stad.

## 34. Capitule.

1. Josias var átta ára gamall þá hann vard kongur, og hann ríkte eitt og þriátíu ár í Jerusalem.

2. Hann gerde þad sem Drottne vel líkade, og geck á síns fodurs Davids vegum, og veik hverke ut af til hægre ne vinstre handar.

3. Þvíad á áttunda áre síns kongsríkis, þá hann var enn barn, upphóf hann ad leita Guds síns fodurs Davids. Og á tolfta áre upphóf hann ad hreinsa Judam, og Jerusalem, af hædum, og lundum, skúrgodum, og steyptum bílætum.

4. Hann let og nidurbrióta fyrer ser Baalims alltare, og afhió þad bílæte sem þar stód ófaná. Hann braut og ísundur alla lunda, og skúrgod, og bílæte, og gerde þad ad osku, og iós henne yfer grafer þeirra sem þeim hofdu offrad.

5. Hann brennde og prestanna bein á aulltorunum, og hreinsade so Juda, og Jerusalem.

6. Ad auk þessa í borgum Manasse, og Ephraim, og Simeon, og allt til Nephthali, í þeirra eydemorku allt umkring.

7. Enn sem hann hafde nú nidurbroted aulltorinn, og lundana, og sundursleiged afgudena, og afhogged oll bílæte um allt Israelis land, þá kom hann aptur til Jerusalem.

8. A hinu átianda áre síns kongsríkis, þá hann hafde hreinsad landed, og húsed, þá sende hann Saphan, son Assalia, og Maeseja stadarins fovita, og Joah, son Joachas, canzelerann, ad endurbæta Drottins síns Guds hús.

9. Og þeir komu til Hilkia þess ypparsta kennemanns, og feingu honum þá peninga sem færder voru til Guds húss, hvera ad Levitarner, sem ad voru dyraverder, hofdu samansafnad, af Manasse, Ephraim, og af ollum þeim sem epter voru ordner í Israel, og af oll-

um Juda og Benjamin, og þeir komu aptur í Jerusalem.

10. Og afhentu þad í verkmannanna hendur sem ad stickader voru í Drottins huse. Og þeir gáfu þad þeim sem smídudu ad Drottins húse, ad þeir bættu hvad þar var nidurfalled, so ad þeir endurbættu húsed.

11. Þesser enu sømu gáfu þad frammveiges tresmidum og byggingarmønnum, til ad kaupa út høggna steina, og hestlud tre til bialkanna, í þau hús sem Juda kongar høfdu fordiarfad.

12. Og þeir menn erfidudu uppá verked trúlega. Og yfer þá voru fetter Jáhath og Obadia, Levitar, af Merari børnum, Sacharia og Mesullam, af børnum Kahathiter, ad frammkvæma gerningenn, og voru aller Levitar, sem kunnu ad leika á streingia hliódfære.

13. Enn þar voru af Levitunum skrifarar, embættismenn, og portvaktarar, yfer þeim sem byrdernar báru, og yfer þeim sem helldu til þiónustunnar í allrahanda embættum.

14. Enn sem þeir tóku út peningana, sem inn voru lagder í Drottins hús, þá fann Hilkia kennemadur løgmáls bók Drottens, sem ut var gefenn fyrer Mosen.

15. Og Hilkia svarade, og sagde til Saphans skrifara: eg hefe funded løgmáls bókena í húse Drottens. Og Hilkia feck Saphan bókena.

16. Enn Saphan bar hana fyrer kongenn, og hann talade til kongsins aptur, og sagde: allt þad sem gefed er under þinna þenara hendur, þad gera þeir.

17. Og þeir hafa teked saman þad fe sem fundest hefir í húse Drottins, og þad gáfu þeir þeim sem standa fyrer erfidenu, so og þeim sem verked fremia.

18. Og Saphan skrifare undervísade kongenum, og sagde: Hilkia kennemadur feck mer eina bók. Og Saphan las í henne fyrer kongenum.

19. Og sem konungurenn heyrde løgmálsins ord, þá reif hann sín klæde ísundur.

20. Og konungurenn baud Hilkia, og Ahikam, syne Saphans, og Abdon, syne Micha, og Saphan, skrifara, og Asaia, sveine kongsins, og sagde:

21. Fared! og adspyred Drottinn fyrer mig, og fyrer þá sem epter eru ordner í Israel, og fyrer Juda, um bokarennar ord sem fundenn er. Hvad reide Drottins er mikel, sem uppkveikt er yfer oss, ad vorer forfedur hafa ei hallded ord Drottins, ad gera þad sem skrifad steudur í þessare bók.

22. Þá geck Hilkia, og þeir adrer sem út voru sender af kongenum til Huldar spákonu, kvinnu Sallum, sonar Thakeath, sonar Hasra þess klædageymara, sem bió í Jerusalem, í þeim ødrum parte, og toludu þetta vid hana.

23. Og hún sagde til þeirra: so seiger Drottinn Israels Gud! seiged þeim manni sem ydur útsende til mín,

24. So seiger Drottinn: siá! eg vil leida ólucku yfer þennann stad, og hans innbyggiara, allar þær bølvaner, sem ad standa skrifadar í bókenne, sem ad lesenn var fyrer Juda konge.

25. Søkum þess, ad þeir hafa yfergefed mig, og brennt reykelse fyrer annarlegum Gudum, og styggt mig med allsháttar þeirra handaverkum, og mín reide skal

uppkveikiast yfer þessum stad, og skal eigi útsløckt verda.

26. Og þer skulud so seigia konge Juda, þeim sem ydur utsende, ad spyria Drottinn: so seiger Drottinn Israels Gud, um þau ord sem þú heyrder.

27. Søkum þess ad þitt hiarta er orded kleckt, og þú audmykter þig, fyrer Gude, þá þú heyrder hans ord, á móte þessum stad, og innbyggiurunum, og þú lítelætter þig fyrer mer, og sundurreiſt þín klæde, og gretst fyrer mer, þá hefi eg bænheyrt þig, seiger Drottinn.

28. Siá! eg vil safna þer til þinna fedra, so þú skallt safnast í þína grøf med fride, so ad þín augu skulu eigi siá alla þá ólucku, sem eg vil senda yfer þennann stad, og hans innbyggiara. Og þeir søgdu kongenum þetta aptur.

29. Þá sende kongurenn út, og let saman koma alla þá enu ellstu í Juda, og Jerusalem.

30. Og kongurenn geck upp í Drottins hús, og allt folk Juda, og innbyggiarar í Jerusalem, og prestarner, og Levitarner, og allur almúgenn, bæde smáer, og stórer, og øll þau ord sem stódu í sáttmáls bókenne, þeirre sem fundenn var í Drottins húse, voru lesenn fyrer þeirra eyrum.

31. Og kongurenn geck í sinn stad, og gerde einn sáttmála fyrer Drottne, ad menn skylldu ganga epter Drottne, og hallda hans bodord, vitnisbúrde, og rettinde, af øllu hiarta, og af allre sálu, og gera epter øllum þessum sáttmáls ordum, sem skrifud eru í þessari bók.

32. Og aller þeir sem nálæger voru í Jerusalem, og í Benjamin, stódu þar, og Jerusalems innbyggiarar gerdu epter Drottins þeirra fedra Guds sáttmála.

33. Og Josias tók burt allar svívirdingar af øllum løndum, sem Israelis børnum tilheyrdu, og kom því til leidar, ad aller þeir sem voru fundner í Israel, þiónudu Drottne sínum Gude. So lenge sem Josias lifde, viku þeir eigi frá Drottne þeirra fedra Gude.

## 35. Capitule.

1. Og Josias hellt Drottne páska í Jerusalem, og slátrade páskum á þeim fiortanda deige í þeim fyrsta mánade.

2. Og hann skipade prestana til þeirra vardhallds, og stirkte þá í þeirra embætte, í húse Drottins.

3. Og hann sagde til Levitanna: hverer ed lærdu allann Israel, og helgader voru Drottne: seted þá heiløgu ørk í húsed, þad sem Salomon, sonur Davids, Israelis kongur bygde. Og þer hafid enga byrdi at bera á ydrum ørlum. So þióned nú Drottne ydrum Gude, og hans fólke Israel.

4. Og skipted ydra fedra húsum í ydrar skipaner, so sem þad er skrifad af David Israelis konge, og af hans syne Salomone.

5. Og standed í helgedómenum, epter skickan ydra fedra húss, á medal ydra brædra, sem fædder eru af fólkenu, og epter skickan fedra húsanna, á medal Levitanna.

6. Slátred páskum, og gered ydur helga, og tilskicked ydra brædur, ad þeir gere epter Drottins orde fyrer Mosen.

7. Og Josias gaf til upplyptingar fyrer almúgann, lømb, og kid (alltsaman til páskanna, fyrer alla þá sem vid voru,) ad tølu þriátíu þusunder, og þriár þusunder

ura, og alltsamann af kongsins gotse.

8. Hans hofdingiar gáfu og viliuglega til upplyptingarennar fyrer fólked, og fyrer prestána, og Levitana, (sem var Hilkia, Sacharia, og Jehiel, hofdingiar í Guds huse, á medal kennemannanna,) til páskanna, tvo Pusund, og sex hundrud (lemb og geitur,) Par til Príu hundrud uxa.

9. Enn Chanania, med Semaia, Nathaneel, og hans brædur, Hasabia, Jehiel, og Josabad, Levitanna hofdingiar, Peir gáfu Levitunum til upplyptingar til páskanna, fimm Pusund (lomb og geitur,) og Par til fimm hundrud uxa.

10. So vard nú Guds Piónustu tilskickud, og prestarner stódu í sínum stad, og Levitarner í Peirra skipan, epter kongsins bode.

11. Og Peir slátrudu páskum, og kennemennerner tóku blóded af Peirra hondum, og stocktu Pví, enn Levitarner tóku skinnenn af Peim.

12 Og gerdu brenneförner Par af, so Peir mættu gefa Pad á medal hluta Peirra fedra húsa, á medal almugans, til offurs Drottne so sem Pad stendur skrifad í Moses bók, so gerdu Peir og vid uxana.

13. Og Peir tilbiuggu páska med elide, epter Pví sem vera átte. Enn hvad sem helgad var Pad matgerdu Peir í pottum, kotlum, og ponnum, og Peir gerdu Pad fliotlega fyrer almúganum.

14. Epter Pad biuggu Peir og til fyrer sig, og prestana, Pviad kennemennerner Aarons born hofdu ad gera med brenneoffred, og feitena, allt til nætur, og Pvi urdu Levitarner ad tilreida nockud fyrer sig, og prestana, Aarons born.

15. Og saungararner, born Asaphs, stódu í Peirra stad, epter skipan Davids, og Assaphs, og Hemans, og Jedithuns kongsins siáanda. Og dyraverderner hiá ollum portum, og Peir viku eigi frá sínu embætte, Pviad Levitarner Peirra brædur reiddu til fyrer Pá.

16. So vard oll Drottins Guds Piónustugerd skickud á Peim sama deige, ad hallda páska, og gera brenneförner á alltare Drottins, epter bifalningu Josias kongs.

17. So helldu Israels born, Pau sem Par voru, Páska á Peim tíma, og Pá ósyrdu brauda hátíd í sio daga.

18. Par voru enger Pvilíker páskar halldner í Israel sem Pesser, frá dogum Samuels spámanns, og engenn Israels kongur hafde hallded sodann páska, sem Josias hellt páska, og prestarner, og Levitarner, og allur Juda, og Peir sem Par vid voru af Israel, so og Peir sem biuggu í Jerusalem.

19. Og Pesser páskar voru halldner á Pví átianda áre Josiæ kongsríkes.

20 Enn epter Pad Josias hafde tilreidt húsed, Pá ferdadest Necho, kongur af Egyptalande, upp, ad beriast imót Charchemes vid Phrath enn Josias fór út imóte honum.

21. Enn hann sende bod til hans, og let seigia honum: hvad hefi eg ad gera med Pig Pú kongur Juda? eigi kom eg nú Per imót, helldur imót Pvi húse sem strider vid mig, og Gud sagde: ad eg skyllde flyta mer, lát af frá Gude, sem er med mer, so hann sláe Pig eigi ihel.

22. Enn Josias leit eigi af honum, helldur bió sig til strids imóte honum, og villde eigi hlyda ordum Necho út af Guds munne, og kom ad beriast vid hann á Peim slettu vollum hiá Megiddo.

23. Enn kongsins skyttur skutu

Josiam kong, og kongurenn sagde til sinna þenara: flytid mig þar yfer um, þvi eg em miog sár.

24. Og hans þenarar tóku hann af vagnenum, og letu hann í hans annann vagn, og fluttu hann til Jerusalem. Og hann andadest, og var jardadur á medal grafa sinna fedra. Og allur Juda, og Jerusalem syrgdu Josiam.

25. Jeremias gret Josiam, og aller saungmenn, og saung-kvinnur kløgudu med grátlegum saungum epter Josiam, inn til þessa dags, og þeir gerdu einn sidvana þar af í Jsrael: siá! þad er skrifad á medal sorgar-saunganna.

26. Enn hvad meira er ad seigia um Josia, og hans miskunseme, so sem skrifad stendur í Drottins løgmále,

27. Og hans gerningar, hiner fyrstu, og sidurstu: siá! þad er skrifad í Jsraels, og Juda konga bók.

## 36. Capitule.

1. Og landsfólked tók Joachas, son Josia, og gerde hann ad konge í sins fødurs stad í Jerusalem.

2. Joachas hafde þriú ár og tutugu, þá hann vard kongur, og hann ríkte þría mánude í Jerusalem.

3. Þviad kongurenn af Egyptalande affsette hann í Jerusalem, og lagde straff á landed, hundrad centener silfurs, og eitt centener gulls.

4. Og Egyptalands kongur sette Eliakim, hans brodur, til kongs yfer Juda, og Jerusalem, og snere hans nafne, Joiakim. Enn Necho tók hans brodur Joachas, og flutte í Egyptaland.

5. Joiachim hafde fimm ár og tutugu þá hann vard kongur, og hann ríkte ellefu ár í Jerusalem, og gerde þad sem Drottne hans Gude illa líkade.

6. Enn Nabogodonosor, kongurenn af Babylon fór ut imóte honum, og batt hann vidium, ad hann gæte flutt hann til Babylon.

7. Og Nabogodonosor flutte nockud af kerum Drottins húss í Babylon, og lagde þau í sitt musteré í Babylon.

8. Hvad meira er ad seigia um Joiakim og hans svívirdingar, sem hann gerde, og med honum voru fundnar, siá! þad er skrifad í Jsraels og Juda konga bók. Og hans sonur Joachin vard kongur í hans stad.

9. Jojachin var átta ára gamall þá hann vard kongur, og hann ríkte þría mánude og tíu daga í Jerusalem, og gerde þad sem Drottne illa líkade.

10. Enn ad áre lidnu þá sende Nabogodonosor þangad, og let hafa hann til Babylon, med þeim kostulegu kerum í huse Drottins. Og hann sette Zedechiam, hans brodur, til kongs yfer Juda og Jerusalem.

11. Zedechias hafde eitt ár og tutugu þá hann vard kongur, og hann ríkte ellefu ár í Jerusalem,

12. Og framde þad sem Drottne hans Gude illa líkade, og hann audmykte sig eigi fyrer Jeremia spámanne, hver ed talade af Drottins munne.

13. Þar med fell hann frá Nabogodonosor, konge af Babylon, sem hafde teked einn eid at honum vid Gud, og hann forhertest og forherdte sitt hiarta, ad hann vilde eigi snúa ser til Drottins Guds Jsraels

14. Og aller þeir yppverstu á medal kennemannanna, og almúgenn syndgadest purlega, epter alls-

háttudum/svívirdingum heidinganna, og saurgudu hús Drottins, hvert hann hafde helgad í Jerúsalem.

15. Og Drottenn þeirra fedra Gud sende til þeirra tímanlega fyrer sína sendeboda, því hann hlífde sínu fólke, og sínu heimele.

16. Enn þeir spottudu Guds sendemenn, og forsmádu hans ord, og hæddu hans spámenn, þar til Drottins reide vox yfer hans fólke, so ad þar var engenn lækning framar.

17. Þviad hann færde kongenn af Chaldea lande yfer þá. Hann let slá íhel med sverde þeirra æskumenn, í húse þeirra helgedoms; hann gaf og eigi grid, hverke ungum piltum ne jomfrúm, eigi gømlum ne ørvasa fedrum; hann gaf þá alla í hans hendur.

18. So og øll ker af Drottins húse, bæde smá og stór, so og líka fiársióduna í húse Drottins, og so líka fiársióðu kongsins og hans hefdingia, þad allt saman let hann flytia til Babylon.

19. Og þeir uppbrenndu Guds hús, og nidur rifu alla múrvegge kringum Jerúsalem, alla þeirra fale breindu þeir upp med ellde, og aller þeirra kostulegustu husbluter fordiørfudust.

20. Og þeir fluttu burt til Babylon þad sem epter var, og þeir urdu hans og hans sona þenarar, inn til þess ad kongsríked af Persia stiornade.

21. So ad Drottins ord skyllde fullkomnast, fyrer munn Jeremiæ, þar til landed hafde nóg af sínum sabbathum, þviad allur sá tíme sem foreydslann stód yfer, þá var sabbath, allt til þess ad siøtíu ár voru uppfylt.

22. Enn á því fyrsta áre Cyri kongs af Persia lande, so ad Drottins ord skyllde fullkomnast, fyrer munn Jeremiæ, þá uppvakte Drottinn anda Cyri, kongsins af Persia, ad hann let úthrópa um allt sitt kongsríke, med brefum, og seigia:

23. So seiger Cyrus, kongur af Persia lande: Drottinn Gud af himnum hefir gefed mer øll kongaríke í løndunum, og hann hefir boded mer ad byggia ser eitt hús í Jerúsalem, í Juda. Hver sem nú er á medal ydar af hans fólke, med hønum se Drottinn hans Gud, og fare hann upp þangad.

Ender á þeirre annare Chronicu bókenne.

# Bók Esdræ.

## 1. Capitule.

1. A því fyrsta áre Cyri, kongs af Persia lande, so ad uppfyllteft ord Drottins, sem talad var fyrer munn Jeremiæ, þá uppvakte Drottinn anda Cyri, kongsins af Persia, so hann let úthrópa um allt sitt kongsríke, og so med brefum, og seigia:

2. So seiger Cyrus kongur í Persia: Gud Drottinn af himnenum hefir gefed mer øll kongaríke í løndunum, og hann hefir bifalad mer, ad eg skyllde byggia hønum eitt hús í Jerúsalem í Juda.

3. Hver þar nú er á medal ydar af hans fólke, med hønum se hans

Gud, og hann skal reisa upp til Jerusalem í Juda, og uppbyggia DrottinsIsraelisGuds hús. Hann er Gud, sem er í Jerusalem.

4. Og hver sem enn nú epter er í øllum stødum þar sem hann er útlendur, hønum skal fólked í þeim stad hiálpa med silfur og gull, gots og kvikse, af einum frialsum vilia til Guds hús í Jerusalem.

5. Þá tóku sig upp høfdingiar fedranna af Juda og Benjamin, og so prestarner og Levitarner, aller þeir sem andi Guds uppvakte ad fara upp, og byggia Drottins hús í Jerusalem.

6. Og aller þeir sem voru í kringum þá styrktu þeir þeirra hendur med silfurkerum og gullkerum, med gotse og fe, og gersemum, auk þess sem þeir siálfviliuglega gáfu.

7. Og Cyrus kongur tók framm kerinn Drottins huss, sem Nabogodonosor hafde teked úr Jerusalem, og sett í sins Guds hús.

8. Enn Cyrus, kongur í Persia, tók þau út fyrer Mithridatem rentumeistara, og talde þau í hendur Sesbazar høfdingia Juda.

9. Og þetta er þeirra tala, þriátíu mundlaugar af gulle, þusund silfurmundlaugar, níu og tutugu knífar.

10. Þriátíu gullbikarar, og þeir adrer silfurbikarar, fiøgur hundrud og tíu, og ønnur ker þusund.

11. So ad øll ker, bæde af gulle og silfre, voru fimm þus und og fiøgur hundrud. Sesbazar flutte þau øll upp med þeim sem fóru úr herleidingunne af Babylon til Jerusalem.

## 2. Capitule.

1. Þesse eru børn af løndunum, sem fóru upp úr fángelsinu, hvera Nabogodonosor, kongur af Babylon, hafde flútt til Babylon, og komu aptur í Jerusalem og Juda, hver í sinn stad.

2. Sem komu med Sorobabel, Jesua, Nehemia, Seraja, Reelia, Mardochai, Bilsan, Mispar, Bigevai, Rehum og Baena. Þetta er nú manntal Israels folks.

3. Børn Parees, tvø þusund hundrad siøtíu og tveir.

4. Børn Sephatia, þríu hundrud siøtíu og tveir.

5. Børn Arahs, siø hundrud siøtíu og fimm.

6. Børn Pahath Moabs medal barna Jesua, Joab, tvø þusund átta hundrud og tólf.

7. Børn Elams, þusund tvø hundrud fimmtíu og fiøgur.

8. Børn Sathu, níu hundrud fiørutíu og fimm.

9. Børn Sachai, siø hundrud og sextíu.

10. Børn Bani, sex hundrud fiørutíu og tvø.

11. Børn Bebai, sex hundrud tutugu og þríu.

12. Børn Asgads, þusund tvø hundrud tutugu og tvø.

13. Børn Adonikams, sex hundrud sextíu og sex.

14. Børn Bigevai, tvø þusund fimmtíu og sex.

15. Børn Adins, fiøgur hundrud fimmtíu og fiøgur.

16. Børn Aters af Hiskia, átta og níutíu.

17. Børn Bezai, þríu hundrud tutugu og þr u.

18. Børn Jorahs, hundrad og tólf.

19. Børn Hasum, tvø hundrud tutugu og þríu.

20. Børn Gibbars, níutíu og fimm.

21. Børn Bethlehems voru hundrad tutugu og þríu.

22. Menn Nethopha, fimmtíu og sex.
23. Þeir menn af Anatoth, hundrad tutugu og átta.
24. Børn Asmaveth, fiørutíu og tvø.
25. Þau børn af Kiriath Arim, Kaphira og Beeroth, siø hundrud fiørutíu og þríu.
26. Þau børn af Rama og Gaba, sex hundrud tu ugu og eitt.
27. Þeir menn af Michmas, hundrad tutugu og tveir.
28. Þeir menn af BethEl og Ai, tvø hundrud tutugu og þrír.
29. Børn Nebo, fimmtíu og tvø.
30. Þeir menn af Magbis, hundrad fimmtíu og sex.
31. Børn Elams hins annars, þusund tvø hundrud fimmtíu og fiøgur.
32. Børn Harims, þríu hundrud og tutugu.
33. Børn Lod Hadids og Ono, siø hundrud tutugu og fimm.
34. Børn Jericho, þríu hundrud fiørutíu og fimm.
35. Børn Senaa, þríar þusunder, sex hundrud, og þriátíu.
36. Prestarner, børn Jedaia af húse Jesu, níu hundrud siøtíu, og þríu.
37. Børn Jmmer, þusund fimmtíu, og tvø.
38. Børn Pashur, þusund, tvø hundrud fiørutíu, og siø.
39. Børn Harims, þusund og seitian.
40. Levitarner, børn Jesua, og Kadmiel af børnum Hodavia, siøtíu, og fiøgur.
41. Saunggararner, børn Asaphs, hundrad og tutugu og átta.
42. Børn dyravardaranna, børn Sallum, børn Aters, børn Talmons, børn Akubs, børn Hatita, og børn Sobai, þesse øll voru hundrad níu og þriátíu.
43. Þeir Nethinim, børn Siha, børn Hasupha, børn Tabaoth,
44. Børn Keros, børn Siehha, børn Padons,
45. Børn Lebana, børn Hagaba, børn Akubs,
46. Børn Hagabs, børn Samlai, børn Hanan,
47. Børn Giddels, børn Gahars, børn Reaja,
48. Børn Rezin, børn Nekoda, børn Gasam,
49. Børn Usa, børn Paesa, børn Bessai,
50. Børn Asna, børn Meonim, børn Nephusim,
51. Børn Bakbuks, børn Hakupha, børn Harhur,
52. Børn Bazeluth, børn Mehira, børn Harsa,
53. Børn Barkom, børn Sisera, børn Thamah,
54. Børn Neziah, børn Hatipha,
55. Børn þenara Salmoonis, børn Sotaj, børn Sophereth, børn Pruda,
56. Børn Jaela, børn Darkons, børn Giddels,
57. Børn Sephatia, børn Hattils, børn Pochereth af Sebaim, børn Ami,
58. Aller Nethinim, og børn þenara Salomonis, vóru tilsamans þríu hundrud níutíu og tvø.
59. Og þesser fóru og upp med af Mithel Mælah, Thel Harsa, Cherub, Addon og Jmmer, enn þeir gatu eigi sagt til sinna fedra húsa, og eigi til þeirra sædis, hvert þeir voru af Jsrael.
60. Børn Delaja, børn Tobia, børn Nekoda, sex hundrud fimmtíu og tvø,
61. Og af prestanna børnum,

børn Habaja, børn Hakos, børn Barsillai, sem tók ser eina kvinnu af dætrum Barsillai Gileaditers, og var nefndur epter þvi sama nafne.

62. Þeir leitudu epter registre sinnar fædingar, og fundu eigi, þar fyrer voru þeir rekner frá kennemannskapnum,

63. Og Hathirsatha sagde til þeirra: ad þeir skylldu eigi eta af því allrahelgasta, fyrr enn einn prestur stæde medUrim ogThumim.

64. Sá allur almuge, so sem einn madur, var tvær og fiørutíu þusunder, þríu hundrud og sextíu,

65. Ad auk þeirra þrælar og ambátter, þeir vorú siø þusund þríu hundrud þriátíu og siø, og þeir høfdu tvø hundrud saungara, og saungkvinnur,

66. Siø hundrud sex og þriátíu hesta, tvø hundrud fimm og fiørutíu múla,

67. Fiøgur hundrud fimm og þriátíu úlfalda, sex þusund, siø hundrud og tuttugu asna.

68. Og nockorer af þeim yppurstu fedrum, þegar þeir komu til Drottins húss í Jerusalem, þá voru þeir fúser til Drottins húss, ad menn settu þad á sinn stad.

69. Og þeir gáfu epter sínum efnum, til fesiódar gerningsins, eitt og sextíu þusund gyllene, og fimm þusund pund silfurs, og hundrad kennemanna klæde,

70. So settu sig nidur prestarner, og Levitarner, og nockorer af fólkenu, og saungararner, og dyraverderner, og þeir Nethinim, í sína stade, og allur Jsrael í borgernar.

## 3. Capitule.

1. Enn sem sá hinn siøunde mánudur var komenn, og Jsraelis børn voru nú í sínum stødum, kom fólked tilsamans í Jerusalem, so sem einn madur.

2. Og Jesua, sonur Josedeks, og hans brædur kennemennerner tóku sig upp, og Sorobabel, sonur Sealthiels, og hans brædur, og bygdu Jsraels Guds alltare, til ad offra brennefórnum þar yfer, so sem þad stendur skrifad í Mose Guds manns løgmále,

3. Þeir tilreiddu alltared á sínum stól, (því þar var ein hrædsla á millum þeirra, søkum folksins í landenu, og þeir offrudu Drottne brenneoffur, yfer því, kvølld og morgna.

4. Og þeir helldu laufskála hátíd, epter því sem skrifad stód, og færdu brenneoffur hvern dag, epter talenu, so sem til heyrde, hvern dag sitt offur.

5. Því næst þær daglegar brennefórner og nymánada, og alla Drottins hátídisdaga, sem ad heilager voru, og allsháttadar siálfviljugar fórner, sem þeir færdu Drottne af sínum friálsum vilia.

6. A þeim fyrsta deige í þeim siøunda mánude tóku þeir til ad gera Drottne brennefórner, enn grundvøllur Drottens musteris var þá eigi enn lagdur.

7. Og þeir gáfu steinhøggurum og tresmidum peninga, og mat, og dryck, og vidsmiør, þeim í Sidon og Tyro, ad þeir skylldu flytia cedrus vide af Libanon, yfer hafed til Japho, epter bifalning Cyri kongs af Persia til þeirra.

8. A ødru áre, epter þad ad þeir komu til Guds húss í Jerusalem, í þeim ødrum mánade, þá upphóf Sorobabel, sonur Sealthiels, og Jesua, sonur Josedeks, og hiner adrer sem epter voru ordner af þeirra brædrum, prestar og Levitar, og aller þeir sem komner voru

úr fángelsenu til Jerúsalem, og þeir skickudu Levitana, frá tutugu árum og þar yfer, ad þeir skylldu frammfylgia verklagenu í Drottins húse.

9. Og Jesua stód med sínum sonum og brædrum, og Kadmiel med sínum sonum, og børn Juda, sem einn madur, ad fylgia ad erfidismønnunum í Guds húse, sem voru, børn Henadads, med þeirra børnum, og þeirra brædrum Levitunum.

10. Nú sem byggingar mennerner løgdu grundvøllenn til musteris Drottins, þá stódu prestarner skrydder, med trametum og Levitarner, børn Assaphs, med Cymbalis, ad lofa Drottinn, med Davids Israels kongs dickte.

11. Og súngu hver til annars, med lofe og þackargerd til Drottins, ad hann er gódur, og hans miskunsemi varer eylíflega yfer Israel. Og allt fólked kallade hátt, og lofade Drottinn, ad Guds húss grundvøllur var lagdur.

12. Enn marger af þeim gømlu prestum og Levitum, og þeim yppurstu fedrum, sem sed høfdu þad fyrra húsed, og þessa húss grundvøllur var lagdur fyrer þeirra augum, þá gretu þeir hárre røddu, enn marger kølludu upp af stórum fagnade, so ad þad þróp hliómade so hátt,

13. Ad fólked kunne eigi ad þeckia gledihróped frá gráthrópenu á medal folksins, þviad fólked hliódade so hátt, ad þeirra kall heyrdest langa vega í burt.

## 4. Capitule.

1. Þegar óviner þeirra Juda og Benjamins heyrdu þad, ad þau børn herleidingarennar uppbygdu Drottins Guds Israels mustere,

2. Þá komu þeir til Sorobabels, og til þeirra yppurstu fedra, og søgdu til þeirra: ver vilum og byggia med ydur, þviad ver leitum ydars Guds so sem þer, og ver høfum ei offrad, frá þeim tíma ad Assar Haddon, konguren af Assyria færde oss upp hingad.

3. Enn Sorobabel og Jesua, og þeir adrer yppurstu fedur yfer Israel svørudu þeim: eigi hæfer þad oss og ydur ad byggia vors Guds hús, helldur vilium ver alleina byggia Gude Drottne Israels, so sem Cyrus kongur af Persía baud oss.

4. Þá hamlade fólked í landenu Juda folks hende, og skelfde þad frá uppbyggingunne.

5. Og þeir leigdu rádgiafara á móte þeim, og hindrudu þeirra rád, so lenge sem Cyrus kongur af Persía lifde, allt til kongsríkis Darii kongs af Persía.

6. Þvi þá Assverus var kongur, í upphafe hans kongdoms, skrifudu þeir eina akæru á móte þeim í Juda og Jerúsalem.

7. Og á døgum Artaxerxes skrifade Bislam, Mithridates, Tabeel, og þeir adrer af þeirra rádaneyte, til Artaxerxes, kongsins af Persía. Og brefed var skrifad á Syrlendsku, og var útlagt á Syrlendsku.

8. Rehum canzeler, og Simsa skrifare skrifudu fama bref mót Jerúsalem til Artaxerxes kongs.

9. Ver Rehum canzeler, og Simsai skrifare, og adrer þess rádaneytes af Dina, af Apharsach af Tharplat, af Persen, af Arach, af Babylon, af Susan, af Deha, og af Elam.

10. Og þad annad folk, sem sá mikle nafnfræge Asnaphar hingad færde, og sette her nidur í Samaria borgum, og í ødrum stødum

þessumeigenn vatnsins, og í Canaan.

11. Og brefed, þad þeir sendu til Artaxerxes kongs, hlydde so. Þiner þenarar, þeir menn sem erú þessumeigenn vatnsins, og í Canaan.

12. Þad se kongenum vitanlegt, ad Gydingarner, þeir sem komner eru hingad til vor, frá þer, til Jerusalem, í þann styriallðiarfulla og vonda stad, þeir uppbyggia þar, og gera sina múra, og færa þá upp frá grundvelle.

13. Þá se þad nú kongenum vitanlegt, ad ef þesse stadur verdur uppbyggdur, og múrarner verda aptur gerder, þá munu þeir eigi vilia gefa þer skeinking, toll, ne árligann skatt, og þeirra áform mun kongenum eigi skadlaust vera.

14. Nú ver aller sem fyrr med vorum, nidur ad brióta mustered, þá høfum ver eigi lengur viliad siá uppá kongsins forsmtun, og þvi sendum ver hedan, ad kongurenn fái ad vita þad.

15. Og ad menn leite í Annalum þinna fedra, so muntu finna í þeim sømu annalum, og fornema, ad þesse stadur er upphlaupsamur, kongenum og landenu skadsamur, og kemur ødrum til affalls frá gamallre tíd, og þvi hefir og þesse stadur vered eydelagdur.

16. Þess vegna gerum ver kongenum þad vitanlegt, ef þesse stadur verdur uppbygdur, og hans múrvegger gerder, þá helldur þú engo epter fyrer þeim, þessumeigenn vatnsins.

17. Þá sende kongurenn svar aptur til Rehum canzeler, og Simsai skrifara, og til þeirra annara sem vóru í þeirra ráde, og í Samaria biuggu, og til hinna annara sem hinumeigenn vatnsins voru. Fridur og heilsan!

18. Þad bref sem þer sendud oss, þad var openberlega lesed fyrer mer,

19. Og er af mer bifalad, ad leitast skyllde. Og menn hafa funded, ad þesse stadur hefir af gamallre tíd uppsett sig á móte konungunum, og gert uppreisn, og affall þar inne.

20. Og so hafa þar vered megtuger kongar í Jerusalem, hverer ríkt hafa yfer øllu þvi sem hinummeigenn vatnsins vered hefir, so ad þeim var gefenn tollur, skeinkur, og árlegur skattur.

21. Þar fyrer gered nú epter þessare bifalningn, hamled þessum mønnum, so ad stadurenn verde eigi uppbyggdur, þar til ad þad er af mer bifalad.

22. So siáed nú til, ad þer forsómed ydur eigi her úti, so ad kongurenn fáe engann skada.

23. Nú sem bref Artaxerxes kongs var lesed fyrer Rehum og Simsai skrifara, og þeirra ráde, þá fóru þeir jafnsnart upp til Jerusalem, til Gydinganna, og tálmudu þeim med magt og vallde.

24. So forhindradest verked á Guds húse í Jerusalem, so þar gerdest eigi par ad, inn til þess annars árs Darii kongs af Persia

## 5. Capitule.

1. Enn þeir spámenn, Haggeus, og Sacharias, sonur Iddos, spádu til Gydinganna sem voru í Juda og Jerusalem, í Israels Guds nafne.

2. Þá tók sig upp Sorobabel, sonur Sealthiels, og Jesua, sonur Josedeks, og tóku til ad byggia Guds hús í Jerusalem, og Guds

spámenn med þeim sem ad stirktu þá.

3. A þeim tíma kom til þeirra Thathnai landsfovete þessumeigenn vatnsins, og Sithar Bosnai, og þeirra rád, og sögdu so til þeirra: hver hefir bifalad ydur ad reisa þetta hús, og ad uppbyggia þess múra?

4. Þá sögdum ver þeim, hvad þeir menn hetu, sem ad budu þessa bygging.

5. Enn augu Guds þeirra komu yfer öldunga Gydinganna, ad þad var þeim eigi hamlad þangad til þetta mál kæme fyrer Darium, og ein skrifft þar uppá fengest aptur.

6. Enn so hliodade þad bref sem Thathnai landsfovite þessumeigenn vatnsins, og Sithar Bosnai, og þeirra rád af Apharsach, sem ad voru þessumeigenn vatnsins, sendu til Darium.

7. Og þau ord hliodudu so, sem þeir sendu til hans. Dario konge allur fridur!

8. Þad se kongenum vitanlegt, ad ver komum í Gydinga land, til þess mikla Guds húsa, hvert ad menn byggia nú upp med allrahanda steinum, og leggia biálka í veggena, og verked gengur flux áfram under þeirra hende.

9. Ver spurdum þá hina ellstu ad, og sögdum so til þeirra: hver hefir bifalad ydur ad byggia þetta hus, og gera þess múr?

10. Ver spurdum og hvad þeir hetu, so ver mættum kunngera þer þad. Og ver höfum uppskrifad þeirra manna nöfn sem ypparster voru af þeim.

11. Enn þeir gáfu oss soddann ord til andsvars, og sögdu: ver erum þenarar þess Guds sem rædur yfer himen og jörd, og ver byggum þad hús sem fyrre var byggt, fyrer mörgum árum, hvert eitt megtugur Israels kongur hafde uppbyggt og reist.

12. Enn þá vorer forfedur styggdu Gud á himnum, þá gaf hann þá í hönd Nabugodonosors, kongs af Babylon, þess Chaldæiska, og hann niburbraut þetta hús, enn burtflútte fólked í Babylon.

13. Enn á því fyrsta áre rikes Cyri, kongs í Babylon, þá baud sá same Cyrus kongur, ad Guds hús skyllde byggiast.

14. Hvad þau gullker, og silfurker, sem ádur voru í þessu sama Guds húse, hver Nabugodonosor kongur tók burt úr Guds musterе í Jerusalem, og let þau í mustered í Babylon, þau tók Cyrus kongur burt úr musterenu í Babylon, og áfhendte þau Sesbazar med nafne, hvern hann sette landsfoveta,

15. Og hann sagde til hans: tak þesse ker, og far af stad, og flyt þau í mustered í Jerusalem, og lát Guds hús byggiast í sínum stad.

16. Þá kom þesse Sesbazar, og lagde grundvöllenn til Guds húss í Jerusalem, og fra þeim tíma byggdu menn, og er enn eigi fullbygt.

17. Og ef þad kongenum synest so, þá láte hann leita í festódahúse kongsins, sem er í Babylon, hvert þad er bífalad af Cyro konge, ad byggiast skyllde Guds hús í Jerusalem, og send oss kongsins meining um þetta.

## 6. Capitule.

1. Þá baud Darius kongur, ad leita skyllde í Canzelienu, í kongsins fehirdslu húsum, sem voru í Babylon.

2. Þá fannst í Ahmetha, á því slote sem liggur í Meden, ein bók,

og í henne stód einn gerningur, so skrifadur.

3. Á þvi fyrsta áre Cyri kongs baud Cyrus kongur ad byggia Guds hús, í Jerusalem, í þeim stad sem menn offrudu, og ad leggia grundvøllenn sextíu álna háfann, og sextíu álna breidann.

4. Og þriá vegge af allrahanda steinum, og einn vegg af tre. Og ad kostnadurenn skyllde gefast af kongsins húse.

5. Þar med þau Guds húss gullker, og silfurker, sem ad Nabugodonosor tók af musterenu í Jerusalem, og hafde til Babylon, þau skulu leggiast aptur, so þau seu høfd aptur í musterenu í Jerusalem, í sinn stad í Guds húse.

6. So víked nú langt frá þeim mønnum, þú Thathnai landsfovite hinumeigenn vatnsins, og þú Sithar Bosnai, og ydart rád af Apharsach, þer sem erud á hinni síðu vatnsins.

7. Láted þá þióna ad Guds húse, so ad Gydinganna landsfovitar, og þeirra ølldungar mæige uppbyggia Guds hús í sínum stad.

8. Þad er og bifalad af mer, hvad gefast skal ølldungunum af Juda, til ad uppbyggia Guds hús med, sem er: menn skulu taka kostgæfelega af kongsins gotse rentuna hinumeigenn vatnsins, og gefa þvi sama fólke, og eigi hindra þá.

9. Og ef þeir hafa þørf á kálfum, lømbum, eda høfrum, til brenneførna fyrer Gude á himnum, hveite, sallte, víne, og vidsmiøre, epter prestanna sídvenju í Jerusalem, þá skal þeim gefast þad daglega, so sem tilheyrer, so ad þad skal eigi forsómast.

10. So ad þeir kunne ad hafa ad offra Gude í himnenum, til eins sæts ilms, og bide fyrer kongsins lífe, og hans barna.

11. Soddan bifalning er gefenn af mer, Og hver sá madur sem ad umbreiter þessum ordum, af hans húse skal takast einn biálke, og skal uppreisast, og sá same skal þar á heingiast, og hans hús skal vera forbroted fyrer søkum þess gernings.

12. Gud sem byr í himnenum hann fyrerfare øllum kongum, og øllu fólke, sem útretta sínar hendur til ad umbreita og brióta Guds hús í Jerusalem. Eg Darius hefe þetta boded, so ad þetta verde vandlega frammkvæmt.

13. Þetta gerde Thathnai landsfovite hinummeigenn vatnsins vandlega, og Sithar Bosnai, og þeirra rádaneyte, til hverra Darius kongur hafde sendt.

14. Og þeir hiner ellstu af Gydingum uppbygdu, so þad geck fliott framm, epter spádome Haggæi, og Sachariæ, sonar Iddo, spámanna: og þeir bygdu og uppreistu, epter Guds bifalning, og epter skipan Cyri, Darii, og Artaxerxis, konganna af Persia.

15. Og þeir fullkomnudu húsed inn til þess þridia dags í Adar mánade, þad var á þvi siotta áre ríkis Darii kongs.

16. Og Israels børn, prestarner, og Levitarner, og þau ønnur fángelsesins børn, helldu vígslu Guds húss med glede.

17. Og þeir offrudu í kyrkiuvígslunne Guds húss hundrad kálfum, tvø hundrud lømbum, fiøgur hundrud høfrum, og til syndaoffurs fyrer allann Israel, tolf geythafra, epter tølu ættkvísla Israels,

18. Og skickudu prestunum í sínar skipaner, og Levitana í sitt vardhalld, ad þióna þeim Gude

sem er í Ísrael, so sem skrifad stendur í Moses bók.

19. Og fángelsesins børn helldu páska, þann fiortanda dag í þeim fyrsta mánade.

20. Þvíad prestarner og Levitarner høfdu hreinsad síg, so þeir voru aller hreiner, so sem einn madur, og þeir sæfdu páska, fyrer øll fángelsesins born, og fyrer prestana þeirra brædur, og fyrer síg.

21. Og Ísraels børn, sem voru aptúrkomenn úr fángelsenu, og aller þeir sem síg høfdu skiled frá heidingianna saurugleika í landenu, ad leita Drottins Guds Ísraelis,

22. Þeir átu og helldu ósyrdra brauda hátíd í siø daga, med fagnade, þvíad Drottinn hafde gert þá glada, og snúed kongsins hiarta af Assyria til þeirra, so þeir urdu stirker í Guds húss gerninge, sem er Israels Gud.

## 7. Capitule.

1. Epter þessa adburde, í tíd Artaxerxis kongsríkis, þá hann var kongur í Persia, þá fór af Babylon Esdras, sonur Serajas, sonar Asarias, sonar Hilkias.

2. Sonar Sallum, sonar Zadoks, sonar Ahithobs,

3. Sonar Amaria, sonar Asaria, sonar Merajoths,

4. Sonar Sera, sonar Usi, sonar Buki,

5. Sonar Abisuas, sonar Phinees, sonar Eleasars, sonar Aarons þess ypparsta kennemanns.

6. Þesse Esdras fór upp frá Babylon, hver ed var vel skickanlega skriftlærdur í Mosis løgmále, sem Drottinn Ísraels Gud hafde gefed. Og kongurenn gaf hønum allt þad hann gyrnteſt, epter hans Drottins Guds hende sem yfer hønum var.

7. Og þar fóru nockorer af Ísraels børnum, og prestar og Levitar, saungarar, dyraverder, og Nethinim, upp til Jerusalem, á þvi siøunda áre Artaxerxis kongs.

8. Og þeir kómu til Jerusalem á þeim fimta mánade, þad var á þvi siøunda áre kongsins.

9. Þvíad á þeim fyrsta deige hins fyrsta mánadar ásette hann ad ferdast frá Babylon, og á þann fyrsta dag í þeim fimmta mánade kom hann til Jerusalem, epter godre Guds hønd, sem yfer hønum var.

10. Þvíad Esdras sette ser fyrer í hiarta ad leita løgmáls Drottins, og ad gera, og ad kenna þeim í Ísrael bodordenn og rettindenn.

11. Og þetta er innehalld brefsins sem kongurenn Artaxerxes gaf Esdræ kennemanne, þeim skriftlærda, sem ad var einn lærare í Drottins orde, og í hans bodordum í Ísrael.

12. Artaxerxes kongur allra konga, Esdræ kennemanne og þeim skriftlærda í Guds løgmále af himnenum. Fridur og heilsan!

13. So er skipad af mer, ad aller þeir sem velviliuger eru til, í mínu ríke, af Ísraels fólke, prestar og Levitar, ad ferdast til Jerusalem, þeir skulu fara med þer.

14. Þú sem ert sendur af kongenum, og af þeim siø rádsherrum, ad vitia Juda og Jerusalem, epter Guds løgmále, hvert ad er under þinne hende.

15. Og ad þú taker med þer gull og silfur, þad sem kongurenn og hans rádsherrar viliuglega gefa Ísraels Gude, hvers heimele ad er í Jerusalem.

16. Og allrahanda gull og silf-

ur, þad þú kannt ad fá, í öllum Babylonis landsálfum, þad sem fólked og prestarner vilia vilinglega gefa til Guds húss í Jerusalem.

17. Tak þad alltsaman med þer, og kaup med athygle med þeim sömu peningum, kalfa, lömb, hafra, matoffur og dryckiaroffur, so þad offrest yfer alltared hiá ydars Guds huse í Jerusalem.

18. Þar ad auke, hvad þer og þínum brædrum þyker ad ge ast skule af þeim peningum sem epter eru, þá gered þad epter ydars Guds vilia.

19. Og þau ker sem þer eru afhendt til þiónustugerdar í þíns Guds húse, þau skallt þú afhenda frá þer fyrer Gude í Jerusalem.

20. Og hvad sem meiri þörf gerest til þíns Guds húss, og þer kemur til út ad gefa, þá láttu gefast af kongsins skatthúse.

21. Eg Artaxerxes kongur hefe bifalad skattahöfdingium hinumeigenn vatnsins, ad hvad sem hellst Esdras kennemadur og skriftlærdur í lögmále Guds af himnum krefur af ydur, þá gered þad med kostgæfne.

22. Allt til hundrad centener silfurs, hundrad cor hveites, og hundrad baih víns, og hundrad bath vidsmiörs, og sallt án mæiers.

23. Allt þad sem heyrer til lögmále Guds af himnenum, ad þad gerest vandlega til Guds húss á himnenum, so ad eigi kome reide yfer kongsins ríke og hans börn.

24. Þa skulud þer og vita, ad þer hafed enga magt ad leggia nockurn skatt, toll, edur árlegt útgiallð uppá nockurn kennemann, Levita, saungara, dyraverde, Nethinim, og þenara í þessa Guds huse.

25. Og þú Esdra skallt epter þíns Guds vísdome setia domendur og fovita, af þeir sem eru under þinne hende, ad dæma yfer öllu því fólke sem er hinumeigenn vatnsins, ad aller vite þíns Guds lög, og hverer þau eigi vita þeim skulud þer kenna þau.

26. Og aller þeir sem eigi gera þíns Guds lögmál med athygle, og kongsins lög, þeir skulu fá sinn dóm fyrer sinn gerning, hvert þad er helldur til daudans eda vesælldar, eda til síns góts fortöpunar, eda til fángelsis.

27. Drottinn Gud vorra fedra se lofadur, sem ad þvílíkt hefir gefed kongenum í hiartad, ad hann vill pryda Drottins hus í Jerusalem.

28. Og hefir hneigt sína miskunsemd til mín, fyrer kongenum og hans rádsherrum, og öllum kongsins villdarmönnum. Og eg vard hughraustur epter Drottins míns Guds hende yfer mer, og samansafnade höfdingiunum af Israel, ad þeir færu upp med mer.

## 8. Capitule.

1. Þesser eru höfdingiar fedranna, hverer reiknader voru, sem ad fóru upp med mer frá Babylon, á þeim tíma sem kongurinn Artaxerxes ríkte.

2. Af börnum Phinees, Gersom. Af börnum Ithamar, Daniel. Af börnum Davids, Hattus.

3. Af börnum Sechania, og börnum Pareos, Sacharia, og med hönum voru reiknader hundrad og fimmtíu.

4. Af börnum Pahath Moab, Elioenai, sonur Serahias, og med hönum tvö hundrud karlmenn.

5. Af börnum Sechania, sonur Jehasiels, og med hönum þriú hundrud karlmenn.

6. Af börnum Adin Ebeds, sonur

Jonathans, og með hønum fimmtíu karlmenn.

7. Af børnum Elams, Jesaia, sonur Athalia, og með hønum sjótíu karlmenn.

8. Af børnum Sephatia, Sebadia, sonur Michaels, og með hønum áttatíu karlmenn.

9. Af børnum Joabs Obadia, sonur Jehiels, og með hønum tvø hundruð og átjan karlmenn.

10. Af børnum Selomith, sonur Josiphia, og með hønum hundrað og sextíu karlmenn.

11. Af børnum Bebai, Sacharia, sonur Bebai, og með hønum átta og tutugu karlmenn.

12. Af børnum Asgad, Johanan sá yngsie sonur og með hønum hundrað og tíu karlmenn.

13. Af síðurstu børnum Adonikams sem hetu Eliphelet, Jehiel og Semaia, og með þeim sextíu karlmenn.

14. Af børnum Bigevai, Uthai, og Sabud, og með þeim sjøtíu karlmenn.

15. Og eg safnaðe þeim til vatnsins sem rennur til Aheva, og þar vorum ver í þría daga, og þá eg athugaðe fólkeð og prestana, þá fann eg engann Levíta þar.

16. Þá sende eg af stað Eliezer, Ariel, Semaia, Elnathan, Jarib, Elnathan, Nathan, Sacharia, og Mesullam, þá yppurstu, og Joiarib, og Elnathan, þá lærendur.

17. Og eg útsende þá til Iddo, sem var høfðinge í Casphia, að þeir skylldu sækia oss þenara til vors Guðs húss. Og eg lagðe fyrer þá hvað þeir skylldu tala við Iddo, og hans bræður þá Nethinim í Casphia.

18. Og þeir færðu oss, epter vors Guðs góðre hende yfer oss, einn lærdann mann, af børnum Maheli, sonar Levi, sonar Israel, Serebia, með sínum sonum og bræðrum, þeir voru átjan.

19. Og Hasabia, og Jesaia með hønum, af børnum Merari, með sínum bræðrum, og þeirra sonum tutugu.

20. Og af þeim Nethinim, sem David og høfðingiarner settu til að þióna Levítunum, tvø hundruð og tutugu, alla nefnda með nafne.

21. Og eg let útþrópa þar eina føstu hiá vatnenu Aheva, og ver auðmyktum oss fyrer vorum Guðe, að spyriast epter rettum veige af hønum fyrer oss og vor børn, og allt vort góts.

22. Því að eg skammaðest mín að biðiast epter fylgðarmønnum og riddara liðe af kongenum, oss til verndar fyrer vorum óvinum á veigenum. Þvíað ver høfðum sagt til kongsins: vors Guðs hønd er alltíð til besta yfer øllum þeim sem hans leita, og hans styrkleikur og reiðe er yfer øllum þeim sem hann yfergefa.

23. Og ver føstuðum og leituðum soddan til vors Guðs, og hann heyrðe oss.

24. Og eg útvalde tólf af þeim yppurstu kennemønnum, Serebiam og Hasabiam, og tíu af þeirra bræðrum með þeim.

25. Og eg vog þeim út það silfur og gull, og kerenn til upplyptingar í vors Guðs hús, hver að kongurenn, og hans ráðsherrar, og høfðingiarner, og aller Israelis menn, sem þar vorn, høfðu gefeð til upplyptingar.

26. Og eg fekk það þeim í þeirra hendur uppá vigt, sex hundruð og fimmtíu centener silfurs, og í silfurkerum hundrað centener, og hundrað centener í gulle.

27. Og tutugu bikara af gulle, hverer ad vogu þusund gyllene, og tvø kostuleg koparker, so klár sem gull.

28. Og eg sagde til þeirra: Þer erud Gude helgader, so eru og kerenn heiløg, líka so gull og silfur, þad sem viliuglega er gefed Drottne ydra fedra Gude.

29. Þar fyrer vaked nú og vardveited þetta, þar til þer veiged þad út aptur fyrer þeim yppurstum kennemønnum og Levitum, og þeim hellstum fedrum á medal Israel í Jerusalem, í Drottins húsi hirdslu.

30. Sídan medtóku kennemennerner og Levitarner þetta hid sama vegna silfur og gull, og kerenn, til ad flytia þad til Jerusalem, til vors Guds húss.

31. Sídan tókum ver oss upp frá Aheva vatne, þann tolfta dag í þeim fyrsta mánade, ad ver færum til Jerusalem. Og vors Guds hønd var yfer oss, og frelsade oss frá vorra óvina høndum, og frá þeim, sem sátu um oss á veigenum.

32. So komum ver til Jerusalem, og vorum þar í þría daga.

33. Enn á þeim fiorda deige var silfred, gulled, og kerenn, vegen í vors Guds húse, under hende Meremoth, sonar Uria kennemanns, og med hønum var Eleasar, sonur Phinees, og med þeim Josabad, sonur Jesua, og Noadia, sonur Benui Levita,

33. Epter hvers tølu og vigt: enn vigtenn var uppskrifud øll á þeim tíma.

35. Og fángelsesins børn, sem komenn voru af fángelsenu, offrudu Israels Gude brennefórnum, tolf uxum fyrer allann Israel, sex og níutín hrútum, siø lømbum og siotíu, tolf høfrum til syndaoffurs, allt saman til brennefórnar fyrer Drottne.

36. Sídan afhendtu þeir kongsins embættismønnum og landsfovitum þessumeigenn vatnsins, kongsins bref og bifaluing, og þeir upphófu fólked og Guds hús.

## 9. Capitule.

1. Þá allt þetta var frammkvæmt gengu þeir hinir yppurstu til mín, og søgdu: Israels folk og prestarner, og Levitarner eru eigi skilder frá fólkenu í løndunum, epter þeirra svívirdingum, sem er Chananiter, Helhitar, Pheresitar, Jebusitar, Ammonitar, Moabitar, Egyptar, og Amoritar.

2. Þvíad þeir hafa teked þeirra dætur og syne, og samanblandad þvi heilaga sæde vid landsins folk: og hendur høfdingianna og rádsherranna voru hellstar í þessum misgerninge.

3. Enn sem eg þetta heyrde, þá reif eg mín klæde ísundur, og minn kyrtel, og reif og mitt høfudhár, og skegg af, og sat einnsamann.

4. Enn aller, þeir sem óttudust Drottins Israelis Guds ord, søfnudust til mín, sokum þvílíkrar stórrar yfertrodslu, og eg sat einnsamann allt til kvølldoffurs.

5. Enn um kvølldoffurs tímann stód eg upp af minne eymd, sundurreif mín klæde, og minn kyrtil, og fell á mín kne, og útbreiddi mínar hendur til Drottins míns Guds,

6. Og sagde: Gud minn! eg skammast mín og blygdast ad upplypta mínum augum til þín, minn Gud! þvíad vorar synder eru vaxnar yfer vor høfud, og vor sok er stór, allt upp til himensins.

7. Frá tíd vorra forfedra høfum ver vered í stórum sokum, allt til þessa dags, og fyrer sakervorra

misgerninga erum ver, og vorer kongar, og kennemenn, gefner í konganna hendur í løndunum, og í sverd, og í fángelse, í rán, og í skømm vors andlitis, so sem þad gengur til á þessum deige.

8. Enn nu er oss ein lítel og fliótleg nád skeð af vorum Drottne Gude, ad þar eru enn nú nockorer af oss epter ordner, og undann komner, so hann gaf oss einn nagla í sínum heilaga stad, so ad vor Gud upplyste vor augu, og gæfe oss eitt líted líf, þar sem ver þiénudum.

9. Þvi ver erum þenarar, og vor Gud yfergaf oss eigi, so ver seum þenarar, og hann hefir snúed miskunseme til vor, fyrer kongunum í Persia, ad þeir láta oss lifa, og hafa upphafed vors Guds hús, og endurbætt þess niðurfall, og gefed oss eina gyrding í Juda og Jerusalem.

10. Nú, hvad skulum ver seigia? vor Gud! søkum þess, ad ver høfum yfergefed þín bod,

11. Sem þú hefir boded og sagt vid þína þenara, spámennena, þad land, í hvert þer innkomed til ad erfa, þad er eitt saurugt land, søkum folksins óhreinleika í løndunum, í þeirra svívirdingum, med hveru þeir hafa þad fullt gert med svívirdingar, bæde her og þar.

12. So skulud þer nú eigi gefa ydrar dætur þeirra sonum, eigi helldur skulud þer taka þeirra dætur handa ydrum sonum, og leited eigi þeirra fridar ne góda æfinnlega, so ad þer verdad megtuger, og eted af þeim gædum í landenu, og gefed þad ydru afkvæme til arfs æfinnlega.

13. Og epter allt þad sem komed er yfer oss, fyrer vorra vondra gerninga saker, og søkum vorra storra synda, þá hefir þú vor Gud! þirmt vorum misgerningum, og gefed oss eina frelsan, so sem þar nú til stendur.

14. Enn ver høfum umsnúed oss, og forláted þín bod, ad ver høfum teingt oss vid þad folk þessara svívirdinga. Vill þú þá vera reidur vid oss, þar til þad er med øllu úte, ad þar er ecke epter, edur nockur vidhiálp?

15. Drottinn Israels Gud! þú ert rettlátur, þviad ver erum epter ordner til ad frelsast, so sem þad er á þessum deige, siá nú! ver erum fyrer þer í vorre skulld, þvi enginn kann ad standast fyrer þer þess vegna.

## 10. Capitule.

1. Enn sem Esdras hafde so bedid og játad, gret, og lá fyrer Guds húse, þá samansafnadest einn mikell mannfiølde til hans af Israel, menn, kvinnur, og børn, þvi fólked gret miøg.

2. Enn Sachania, sonur Jehiels, af børnum Elams, svarade og sagde til Esdram: ver høfum misgert imóte vorum Gude, í þvi, ad ver høfum teked oss annarlegar eiginkonur af landsins folke, nú! þar er enn von í Israel yfer þessu.

3. Gerum þvi eitt sáttmál vid vorn Gud, ad ver látum frá oss allar þessar kvinnur, og þad sem fædt er af þeim, epter Drottins ráde, og þeirra sem ad óttast vors Guds bodord, so ad gert se epter løgmálenu.

4. Þvi tak þig upp, þad ber þer, ver vilium fylgia þer: vert hughraustur, og ger þad.

5. Þá stód Esdras upp, og tók einn eid af þeim yppurstu kennemønnum og Levitum, og af øllum

Israel, ad þeir skylldu gera epter þessum ordum. Og þeir fóru.

6. Og Esdras stód upp fyrer Guds húse, og geck inn i herberge Johanans, sonar Eliasibs; og þá er hann kom þar inn, þá villde hann einskis brauds neyta, ne vatn drecka, þvi hann gret þeirra yfertrodslu, sem i fángelsenu høfdu vered.

7. Og þeir letu úthrópa i Juda og Jerusalem, til allra þeirra borna sem føngud høfdu vered, ad þau skylldu samansafnast til Jerusalem.

8. Og hver sem eigi kæme innann þriggia daga, epter ráde þeirra hinna yppurstu, og ellstu, þeirra eigner skylldu uppnæmar verda, og sá skyllde fráskiliast frá samlage þeirra herteknu.

9. Þá komu saman aller menn af Juda, og Benjamin, til Jerusalem, i þriá daga, þad var á tutugasta deige i þeim níunda mánude, og allt fólked sat á strætenu úte fyrer Guds húse, og skalf, søkum þessa málefnis, og søkum regns

10. Og Esdras kennemadur reis upp, og sagde til þeirra: Þer hafid misgert, i þvi, ad þer tókud annarlegar eigennkonur, og hafid auked her med Israelis synd.

11. Þar fyrer vidurkenned nú Drottne ydra fedra Gude, og gered þad honum þocknast, og skiled ydur frá landsins fólke, og frá þeim annarlegum eigennkvinnum.

12. Þá svarade allur almúgenn, og sagde med hárre raustu; verde so sem þú hefir sagt oss.

13. Enn fólked er margt, og votvidre er, og má eigi standa úte, so er þad og eigi helldur eins dags verk, edur tveggia, þviad ver høfum gert mikla þessa yfertrodslu.

14. Látum oss tilsetia vora høfdingia medal alls almúgans, ad þeir aller sem eru i vorum stødum, og til sín hafa teked annarlegar kvinnur, kome hingad á tilsettum tíma, og med þeim olldungarner serhvers stadar, og þeirra domendur, þar til ad vors Guds reide vendest frá oss, søkum þessarar skulldar.

15. Þá voru tilsetter Jonathan, sonur Asahels, og Jehasia, sonur Tikuas, yfer þetta málefne, og Mesullam, og Sabthai, Levitar hiálpudu þeim.

16 Og Herleidingarennar børn gerdu so. Og Esdras kennemadur, og þeir yppurstu fedur i þeirra fedra huse, og þeir aller sem nú eru nefnder, skildu þá ad, og settu sig til á þeim fyrsta deige i þeim tíunda mánade, ad rannsaka þetta málefne.

17. Og þeir fullkomnudu þetta hiá øllum mønnum, þeir sem áttu annarlegar kvinnur, allt til þess fyrsta dags i þeim fyrsta mánade.

18. Og þar urdu fundner á medal prestanna barna, sem ad teked høfdu annarlegar kvinnur, sem ad voru á medal barna Jesua, sonar Josedeks, og hans brædra, Maeseia, Elieser, Jarib, og Gedalia.

19. Og þeir gáfu sína hønd þar uppá, ad þeir skylldu útreka þessar kvinnur, og gefa einn hrút til syndaoffurs, fyrer þeirra sok.

20. Á medal barna Immers, Hanani og Sebadias.

21. Á medal barna Harim, Maeseia, Elia, Semaia, Jehiel, og Usia.

22. Á medal barna Pashur, Elioenai, Maeseia, Ismael, Nethaneel, Josabad, og Eleasá.

23. Á medal Levitanna, Josabad, Simei, Kelaia, (hann er Klita;) Petachia, Juda, og Eliezer.

24. Á medal saungaranna, Eli-

asib, enn á medal dyravardaranna, Sallum, Telem, og Uri.

25. Af Israel, á medal barna Pareos, Ramia, Jesia, Malchia, Meiamin, Eleasar, Malchia, og Benaia.

26. Á medal barna Elam, Mathania, Sacharia, Jehiel, Abdi, Jeremoth og Elia.

27. Á medal barna Sathu, Elioenai, Eliasib, Mathania, Jeremoth, Sabad, og Asisa.

28. Á medal barna Bebai, Johanan, Hanania, Sebai og Athlai.

29. Á medal barna Bani, Mesullam, Malluch, Adaia, Jasub, Seal, og Jeramoth.

30. Á medal barna Pahath, Moab, Adna, Chelal, Benaia, Maeseia, Mathania, Bezaleel, Benui, og Manasse.

31. Á medal barna Harims, Elieser, Jesia, Malchia, Semaia, Simeon.

32. Benjamin, Malluch, og Samaria.

33. Á medal barna Hasum, Mathnai, Mathatha, Sabad, Elipheleth, Jeremai, Manasse, og Simei.

34. Á medal barna Bani, Maedai, Amram, Huel.

35. Benaia, Bedia, Chelui.

36. Vania, Meremoth, Eliasib.

37. Mathania, Mathnai, Jaesau.

38. Bani, Benui, Simei.

39. Selemia, Nathan, Adaia.

40. Machnadbai, Sasai, Sarai.

41. Asareel, Selemia, Samaria,

42. Sallum, Amaria, og Joseph.

43. Á medal barna Nebo, Jeiel, Mathithia, Sabad, Sebina, Jaddai, Joel og Benaia.

44. Þesser aller høfdu teked framande kvinnur, og þar voru nockorar þær kvinnur af þessum sem børn høfdu átt.

Ender á bókenne Esdræ.

# Nehemiæ Bók.

## 1. Capitule.

1. Þesser eru gerningar Nehemiæ, sem var sonur Hachalias. Þad skede í þeim mánude Chislef, á því tutugasta áre, ad eg var á slotenu í Susan.

2. Þá kom Hanani, einn af mínum brædrum, og nockorer menn med hønum, frá Juda. Og eg spurdi þá ad: hvernenn þad genge þeim Gydingum, sem ad frelsader eru, og epter eru ordner af því fángelse, svo og líka, hvernenn ad til geinge í Jerusalem?

3. Enn þeir søgdu til mín: ad þeir sem epter eru af fángelsenu, þeir eru þar í landenu í stórre ólucku og fyrerlitningu. Múrvegger Jerusalems eru nidurbrotner, og hennar port uppbrennd med elde.

4. Enn sem eg heyrde soddan ord, sat eg, og gret, og syrgde í tvo daga, og fastade, og eg badst fyrer fyrer Gude á himnum,

5. Og sagde: æ Drottinn Gud á himnum! þú hinn mikle og hrædelege Gud, sem ad helldur sáttmála og miskun vid þá sem þig elska, og þín bodord vardveita.

6. Lát þó þín eyru merkia þetta,

og þín augu vera openn, so ad þú heyrer bæn þíns þenara, sem eg bid í auglite þínu dag og nótt, fyrer þínum þenurum Jsraels børnum, og eg medkenne synder Jsraels barna, sem ver høfum gert á móte þer. Og eg og míns fødurs hús høfum og syndgast.
7. Ver høfum forsed oss miøg vid þig, ad ver høfum eigi hallded þau bodord, bifalningar, og rettinde, sem þú hefir boded þínum þenara Mosi.
8. Enn minnst þú þó á það ord sem þú baudst þínum þenara Mose, og sagder: nær þer misgered, þá vil eg dreifa ydur á millum þióðanna.
9. Enn ef þer snúed ydur til mín og hallded mín bodord, og gered þau, og þó þer værud útrekner til himensins enda, þá vil eg þó safna ydur saman þadan, og færa til þess stadar sem eg hefe útvaled, ad mitt nafn þar bue.
10. Þeir eru þó þíner þenarar, og þitt folk, hvert þú hefir frelsad med mikillre magt, og þinne megtugre hende.
11. O Drottinn! lát þín eyru gætur gefa ad bæn þíns þenara, og ad bæn þinna þenara, þeir sem gyrnast ad óttast þitt nafn, og lát þínum þióni í dag luckast, og gef hønum miskun fyrer þessum manne, þviad eg var kongsins skeinkiare.

## 2. Capitule.

1. A þvi tuttugasta áre Artaxerxes kongs, í þeim mánade Nisan, þá víned stód fyrer hønum, þá tók eg víned upp, og eg rette það ad kongenum, og eg sá miøg sorglega út fyrer hønum.
2. Þá sagde kongurenn til mín: þvi ert þú so dapur ad siá, þú ert þó eigi siúkur? það er eigi þess kyns, helldur ert þú hugsiúkur. Og eg vard miøg óttasleigenn.
3. Og eg sagde til kongsins: kongurenn life æfenlega! skyllde eg eigi dapur vera? sú børgenn, sem minna fedra greftrunar hús er, liggur í eyde. Og hennar port eru uppeydd med ellde.
4. Þá sagde kongurenn til mín: epter hverju beidest þú þá? þá bad eg Gud á himnum,
5. Og eg sagde til kongsins: se það kongsins vile, og þocknest þinn þenare þer, ad þu viler þá senda mig til Juda, til minna fedra legstadar, ad eg mætte uppbyggia hann.
6. Þá svarade kongurenn mer, og drottningenn, sem sat hiá hønum: hversu lenge verdur þú í burtu? og nær villt þú koma aptur? og það þocknadest kongenum, so ad hann sende mig af stad. Og eg sette hønum ákvedenn tíma.
7. Og eg sagde til kongsins: se það kongsins vile, þá gefe hann mer bref til landsfovitanna, sem hinumeigenn vatnsins eru, ad þeir fylge mer þar yfer um, þar til eg kem í Juda.
8. Og bref til Assaphs kongsins høfdingia yfer skógunum, ad hann gefe mer vidu til bialka, til portanna í høllena, sem er í húsunum, og hiá stadarmúrnnum, og til þess hussens í hvert eg fer. Og kongurenn gaf mer epter þvi sem míns góda Guds hønd var yfer mer.
9. Og sem eg kom til landsfovitanna hinumeigenn vatnsins feck eg þeim kongsins bref. Og kongurenn sende høfudsmenn og riddaralid med mer.
10. Enn sem Saneballat Horoniter, og Tobias einn Ammonita þenare, heyrdu þvilíkt, þá gramdest þeim miøg vid þetta, ad þar var

einn madur komenn, sá góds villde
leita Israelis børnum.
11. Enn sem eg kom til Jerúsa
lem,og hafde vered þar í þriá daga.
12. Tók eg mig upp um nótt,
og fáer menn med mer, þvíad eg
sagde engum manne, hvad minn
Gud hafde gefed mer í sinne ad ge=
ra í Jerúsalem, og þar var ecke dyr
med mer, utan þad sem eg reid á.
13. Og eg reid um nóttena út
af þvi dalsportenu, út ad dreka=
brunne, og til þess mykiu=ports,
og þad angrade mig ad Jerusalems
múrvegger voru nidurbrotner, og
borgarhlidenn uppbrennd med el=
de.
14. Og eg geck yfer til brunn=
portsins, og til kongsins fiskedykes,
og þar var ecke rúm, ad mitt dyr
kynne ad ganga framm under mer.
15. Þá fór eg um nóttena, ad
læknum, og þad angrade mig, ad
siá so múrana, og eg snere mer, og
kom so heim aptur ad dalportenu.
16. Enn fyrermennerner vissu
eigi hvert eg var farenn, eda hvad
eg gerde. Þviad allt her til haf=
de eg eigi neitt sagt Gydingunum,
prestunum, herrunum, og þeim
yppurstum, edur nockorum ødrum
sem voru ad verkenu.
17. Og eg sagde til þeirra: þer
siáed í hverre ólucku ad ver erum
stadder, ad Jerusalem er í eyde, og
hennar port eru uppbrennd med
elde. Komed og byggium upp mú=
ra Jerusalems, so ver seum eigi
lengur ein forsmán.
18. Og eg kunngerde þeim míns
Guds hønd, hver ed gód var yfer
mer, so og kongsins ord, sem hann
sagde til mín. Og þeir søgdu: so
tokum oss upp; og ver bygdum,
og þeirra hendur styrktust til hins
góda.
19. Enn sem þeir Sanebalat
Horoniti, og Tobia sá Ammoni=
ters þenare, og Gosem Araber, heyr=
de þetta, þá spottudu þeir oss og
forøktudu, og søgdu: hvad er þad
sem þer gered? viled þer enn falla
frá kongenum?
20. Þá svarade eg þeim, og sag=
de: Gud á himnum mun láta oss
þetta vel luckast, þvi ver hans þen=
arar høfum teked oss upp, og byg=
gium, enn þer eiged ecke hlutskipte,
ne rettinde, ne nockora minning í
Jerusalem.

## 3. Capitule.

1. Og Eliasib kennemannahøfd=
inge tók sig upp med sínum brædr=
um prestunum, og uppbygdi sau=
daported. Þeir helgudu þad, og
biuggu um portdyrnar, og helgudu
þad allt til turnsins Mea, sem er,
allt ad turne Hananeel.
2. Hiá hønum bygdu menn af
Jericho, og hiá hønum Sachur, son=
ur Imri.
3. Enn børn Senaas bygdu upp
fiskeported, og þoktu þad, og settu
þar fyrer hurd, lása, og grindur.
4. Og hiá þeim uppbygde Mere=
moth, sonur Urias, sonar Hakoz, og
Mesullam, sonur Berechias Meseza=
beel sonar, bygde hiá þeim. Hiá
þeim bygde Zadok, sonur Baenas.
5. Hiá þeim bygdu þeir af The=
koa. Enn þeirra volldugir løgdu
eigi sína hálsa under þiónustu síns
Herra.
6. Þad gamla port uppbygde
Jojada, sonur Passeas, og Mesull=
am, sonur Besodias, þeir þoktu þad,
og settu fyrer hurd, lása, og grind=
ur.
7. Hiá hønum bygde Melatha
af Gibeon, og Jadon af Merono,
þeir menn af Gibeon og Mizpa, hiá
landsfovitans stóle, þessumeigenn
vatnsins.

8. Hiá hønum uppbygde Usiel gullsmidur, sonur Harhaia. Hiá þeim bygde Hanania, sonur Smyrslamakarans, og þeir bygdu í Jerusalem, allt ad þeim breida múr.

9. Hiá þeim bygde Rephaia, sonur Hurs, høfdinge hálfs fiordungs í Jerusalem.

10. Enn hiá hønum bygde Jedaja, sonur Harumaphs, þvert yfer frá hans húse. Hiá hønum bygde Hattus, sonur Hasabenias.

11. Enn Malchia, sonur Harims, og Hasub, sonur Pahath Moab, bygdu tvo parta, og turnenn hiá ofnunum.

12. Hiá hønum bygde Sallum, sonur Halohes, høfdinge yfer hálfum fiordunge í Jerusalem, hann og hans dótter.

13. Dalported bygde Hanun, og borgararner af Sanoah, þeir bygdu þad, og settu dyr fyrer med lásum, og grindum, og þusund álna á múrnum, allt til mykiu portsins.

14. Enn mykia ported uppbygde Malchia, sonur Rechabs, fiordungs høfdinge víngardsins, hann bygde þad og sette fyrer hurder, lása, og grindur.

15. Enn brunnported bygde Sallum, sonur Chalhoses, fiordungs høfdinge í Mizpa, hann bygde þad, og þakte, og let fyrer hurd, lása, og grindur, þar med múrenn hiá Siloah fiskdíke, hiá kongsins alldingarde, allt ad þeim trøppum sem liggia nidur hiá Davids stad.

16. Epter hann bygde Nehemia, sonur Asbuks, høfdinge yfer hálfpartenum í Bethzur, allt til þess gegnt Davids grøfum, og allt ad fiskadíke Asuia, og allt ad kappanna húse.

17. Nærst hønum bygdu Levitarner, Rehum, sonur Bani, nærst hønum bygde Hasabia, høfdinge hálfs fiordungsins í Kegila, í sinum fiordunge.

18. Nærst hønum bygdu þeirra brædur Banai, sonur Henadads, hálfs fiordungs høfdinge í Kegila.

19. Nærst hønum bygde Eser, sonur Jesua, høfdinge í Mizpa, tvo parta, allt ad því vike gegnt vopnahúsenu.

20. Nærst hønum á biargenu bygde Baruch, sonur Sebaim, tvo hlute í vikenu, allt til húsdyra Eliasibs ypparsta kennemans.

21. Nærst hønum bygde Meremoth, sonur Urias, sonar Hakoz, tvo hlute frá Eliasibs húsdyrum, og allt til endans á Eliasibs húse.

22. Epter hann bygdu prestarnet, þeir menn af slettunne.

23. Epter þá bygde Benjamin og Hasub, þvert yfer frá þeirra húsum. Epter þá bygde Asaria, sonur Maaseias, sonar Anania, hiá sínu huse.

24. Nærst hønum bygde Benui, sonur Henadad, tvo parta, frá Asarias húse, allt til þess afkima, og inn til hornsins.

25. Palal, sonur Usai, bygde mót afkimanum, og þeim háfa turne sem sest frá kongsins húse, hiá mirkvastofugardenum. Epter hann bygde Pedaia, sonur Pareos.

26. Enn þeir Nethinim biuggu hiá Ophel, allt til vatnsportsins imóte austre, þar sem turnenn stendur framm.

27. Epter hann bygdu þeir af Thekoa, tvo hlute móte þeim stóra turne, sem þar frammgæst, og allt ad murnum Ophel.

28. Enn frá hesta portenu bygde hver kennemannanna gegnt sínu húse.

29. Epter hann bygde Zadok, sonur Immer, gegnt sínu húse.

Epter hann bygde Semaia, sonur
Sechania, dyravordur, imót austre.
30. Epter hann bygde Hanania,
sonur Selemia, og Hanun, sonur Za-
laph, hinn siötte, tvo hlute. Epter
hann bygde Mesullam, sonur Bere-
chia, gegnt sinne fehirdslu.
31. Epter hann bygde Malchia,
sonur gullsmidsins, allt ad húse Ne-
thinim, og kaupmanna, gegnt ráds
portenu, og til salsins hiá hornenu.
32. Og á mille salsins hiá hor-
nenu, og til sauda portsins, bygdu
gullsmiderner og kramararner.

## 4. Capitule.

1. Enn þegar Saneballat frette,
ad ver bygdum upp múrenn, vard
hann styggur og miøg reidur, og
hædde Gydingana.
2. Og sagde fyrer sínum brædr-
um, og þeim megtugum í Sama-
ria: hvad gera þeir vanmáttugu
Gydingar? eda skal þeim lídast þet-
ta? skulu þeir offra? skulu þeir því-
líkt frammkvæma á einum deige?
skulu þeir þá steina lifande gera
sem eru øskudingia, og uppbrennd-
er?
3. Enn Tobias Ammoniter, sem
var nærstur hønum, sagde: láted
þá byggia; ef ad refar fara þang-
ad, þeir skylldu vel geta rifed nidur
þeirra steinvegge.
4. Heyr vor Gud! hversu ver
erum forsmáder, lát þú spott þeirra
koma þeim í koll, og gef þá í for-
smán í þeirra herleidingar lande.
5. Lát eigi hyliast þeirra mis-
gerninga, og forma eigi þeirra
synder fyrer þer, þviad þeir hafa
sturlad byggingar fólked.
6. Enn ver byggdum múrenn,
og settum hann alldeilis samann,
til hans hálfrar hædar, og fólked
fekk hugarhressing til ad erfida.
7. Þá Saneballat, og Tobia,
og þeir Araber, og Ammonitar, og
Asdoditar heyrdu þad, ad múrean
í Jerusalem var samanlúctur, og
þær voru tekner til ad bæta þad
sem brosted var, urdu þeir miøg
reider.
8. Og þeir gerdu aller einn sátt-
mála tilsamans, ad þeir kæmu og
strídddu á mót Jerusalem, og gerdu
eina villu þar inne.
9. Enn ver bádum til vors Guds,
og settum vøkumenn yfer þá, dag
og nótt, imóte þeim.
10. Og Juda sagde: menn eru
þreitter af byrdum, enn mollder
eru miklar, so ver getum eigi bygt
uppá múrenn.
11. Enn vorer mótstandarar
þeinktu: þeir skulu hverke siá ne
vita af, fyrr enn ver komum midt
á millum þeirra, og sláum þá íhel,
og hindrum verked.
12. Enn þá þeir Gydingar, sem
biuggu hiá þeim, komu vel tíu
sinnum, og søgdu oss þetta, úr øll-
um áttum, þar þeir biuggu í kring-
um oss,
13. Þá skipade eg fólkenu nidur
í þær atter á bak vid múrenn, í
grafernar, epter þeirra sverdum,
spiótum og bogum.
14. Og eg sá til, og tók mig upp,
og sagde til rádsherranna, og høfd-
ingianna, og til fólksins: óttest
þá eigi, þeinked á þann mikla og
ofurliga Drottinn, og strídeð fyrer
ydra brædur, syne, dætur, kvinnur,
og heimele.
15. Enn þá vorer óviner heyr-
du, ad ver vorum ordner þessa ví-
ser, þá gerde Gud þeirra rádagerd
ad engu. Enn ver aller snerum til
mursins aptur, hver til síns er-
fides.
16. Og þad skede frammveiges,
ad hálfpartur af þeim ungu mønn-
um erfidudu, enn annar helmingur

af þeim helt á spiótunum, skiolldunum, bogunum og brinium. Og þeir yppmistu stódu tilbaka af øllu Juda húse.

17. Þeir sem bygdu uppá múrenn, og báru byrder frá þeim sem løgdu uppá þá: med einne hende fremdu þeir arfided, enn med annare helldu þeir á vopnum.

18. Og hver einn sem var ad byggia, hafde sitt sverd gyrdt vid sínar lendar, og bygdu so, enn sá sem bles í basununa, hann var hiá mer.

19. Enn eg sagde til rádsherranna, og þeirra yppurstu, og þess annars folks: þesse gerningur er mikell og vídur, enn ver erum adskilder langt hver frá ødrum uppá múrunum.

20. Í hverium stad sem þer heyred nú basununa gella, þá safnest þangad til vor, vor Gud mun beriast fyrer oss.

21. So vilium ver erfida uppá vorn gerning. Og helmingur folksins hellt á vopnum, frá því ad dagade á morgna, og allt til stiørnur uppkomu.

22. Og eg sagde til folksins í þann tíma: ad hver og einn skyllde vera med sína þenara á nóttum í Jerusalem, so ver mættum hallda vørd um nætur, enn erfida um daga.

23. Enn eg og míner brædur, og míner sveinar, og þeir menn á vaktenne á bake mínu, ver fórum eigi af vorum klædum, og hver yfergaf ad lauga sig.

## 5. Capitule.

1. Þar upphófst miked kall med al folksins, og medal þeirra kvenna imót, þeirra brædrum Gydingunum.

2. Og þar voru nockorer sem ad søgdu: vorer syner og dætur eru margar, tøkum korn og etum, so ver meigum lifa.

3. Enn sumer søgdu so: setium til panta vora akra, hús, og víngarda, so ver meigum fá korn í þessare hallæris tíd.

4. Sumer søgdu so: tøkum til láns peninga til kongsins skatts, og setium í borgun vora akra og víngarda.

5. Þviad vorra brædra líf er so sem vort líf, og þeirra barna so sem vorra barna, annars verdum ver ad underleggia vora syni og dætur under þrældom. Og allareidu eru underlagdar nockorar vorar dætur, og þar eru engenn efne í vorum høndum, og vorer akrar og víngardar koma under adra.

6. Enn þá eg heyrda þeirra kall, og slík þeirra ord, vard eg miøg reidur.

7. Og eg tók þad rád í mínu hiarta, ad eg straffadc rádsherrana, og þá yppurstu, og eg sagde til þeirra: vill hver ydar einn okra annann? og eg safnade miklum almúga imóte þeim,

8. Og sagde til þeirra: ver høfum keypt vora brædur Gydingana, epter vorum mætte, sem ad sellder voru heidingium, og þer viled selia ydra brædur, sem ver høfum keypt til vor? þá þøgdu þeir, og gátu engu svarad.

9. Og eg sagde: þad er eigi godt sem þer gered, skylldud þer eigi ganga í Guds otta, fyrer heidingianna vorra óvina brixles saker?

10. Eg og míner brædur, og míner þenarar, høfum lánad þeim korn og peninga, enn okred letum ver epter vera.

11. Þar fyrer gefed þeim aptur nú þennann dag þeirra akra, víngarda, vidsmiørsgarda og hús, og

Þann hundradasta part peninga, á korne, víne og vidsmiøre, sem Þer hafed okrad af Þeim.

12. Þá svørudu Þeir: ver vilium gefa Þad aptur, og einskis krefia af Þeim, og ver vilium gera sem Þú hefir sagt. Og eg kallade á kennemennena, og tók einn eid af Þeim, ad Þeir skylldu so gera.

13. Eg úthriste minn barm, og sagde: so úthriste Gud hvern mann frá sínn húse, og frá sínu erfide, hver sem eigi uppfyller Þesse ord, ad hann se úthristur og tómur. Og allur søfnudurenn sagde: amen! og Þeir lofudu Drottinn. Og fólked gerde so.

14. Og frá Þeim tíma sem mer bisalad var ad vera einn landsfovite í Gydinga lande, sem var, frá tutugasta áre, og til Þess tolfta og tutugasta árs Artaxerxes kongs, Þad eru tolf ár, Þá fædda eg mig og mína brædur, eigi af landsfovitans koste,

15. Þvi Þeir fyrre landsfovitar, sem vered høfdu fyrer mer, høfdu Þvingad fólked, og teked braud og vín frá Því, Þar med fiørutíu siklos silfurs, so og letu Þeir sína Þenara veita fólkenu yfergang, enn eg gerda eigi so, fyrer søkum Guds ótta,

16. Og eg erfidade og so á múrveggia erfidenu, og keypte engann akur, og aller míner Þenarar urdu ad koma Þangad til samans ad erfida.

17. Og ad auk Þessa voru af Gydingum, og Þeim ædstu mønnum, hundrad og fimmtíu vid mitt bord, hverer komner voru til mín frá heidingiunum, sem í kringum oss eru.

18. Og eg hafde til bordhallds hvern dag einn uxa, og sex útvalda saude, og fugla, og allslattad vín ofurmiked, innann hvers tíunda dags. Þó krafdi eg eigi landsfovitans kosts, Þviad Þiónustann var Þúng fólkenu.

19. Minn Gud! minnstu mín til hins góda, alls Þess sem eg hefe gert Þessu folke.

## 6. Capitule.

1. Nú sem Saneballat, og Tobia, og Gosem Arabiter, og adrer óviner fornumu Þetta, ad eg hafde uppbygt múrenn, so Þar sanst hvørge framar sprunga á hønum (Þó ad eg hefde eigi enn í Þann tíma upphengt hurdernar í porten.)

2. Þá sende Saneballat og Gosem til mín, og letu seigia mer: kom! látum oss finnast á landsbygdunum, í Þeim dal Ono. Enn Þeir Þeinktu ad gera mer illt.

3. Enn eg sende Þeim bod aptur, og let seigia Þeim: eg hefe miked erfide ad frammkvæma, eigi kann eg ad koma ofan Þangad, annars forsómast Þad verk, ef eg tek mína hønd Þar frá, og eg fer ofan til ydar.

4. Þeir sendu mer bod vel í fiorum sinnum, á Þann hátt, enn eg svarade Þeim á Þennann hatt.

5. Þá sende í fimmta sinni Saneballat sinn eigenn Þenara til mín, hver ed hafde eitt oped bref í sinne hende,

6. Þar inne ad skrifad var: Þad er komed fyrer heidingiana; og Gosem hefir Þad sagt, ad Þú og Gydingarner Þeinkia ser ad gera uppreisn, og Þvi bygger Þú Þennann múr, ad Þú villt vera Þeirra kongur í Þessum málefnum.

7. Þú hefir og sett til spámennena, sem skylldu úthrópa í Jerusalem um Þig, og seigia: hann er kongur Gydinga. Nú mun slíkt koma fyrer kongenn. Þar fyrer kom

nú, og látum oss rádgast hvern vid annann.

8. Enn eg sende til hans, og let so seigia: eigi er so skéd sem þú seiger, sliddan hefir þú uppkveikt í þínu hiarta.

9. Þvi þeir villdu aller gera oss hrædda, og þeinktu; þeir skulu taka sínar hendur frá verkenu, og erfida eigi. Enn eg stirkti þvi meir mína hønd.

10. Og eg kom í Semaia hús, sonar Delaia, sonar Mehetabeel, og hann hafde sig lukt inne, og sagde: látum oss koma samann í Guds hús midt í musterenu, og lokum aptur musteresins dyrum, þviad þeir munu koma og slá þig íhel, og í nótt koma þeir ad deyda þig.

11. Eg svarade: skal soddan madur flya? skal slíkur madur sem eg eir fara í mustered, ad forda lífe sínu? eg vil eigi fara þangad.

12. Þvi eg merkte vel, ad Gud hafde eigi útsendt hann, þviad hann spáde þessu um mig. Enn Tobia og Saneballat høfdu gefed hønum peninga,

13. Og þvi tók hann peningana, ad eg skyllde vera hræddur, og so gera, og syndgast, so þeir hefdu feinged illann raum, hvar med þeir kynne ad álasa mer.

14. Minn Gud! minnstu á Tobia, og Saneballat, epter þessum þeirra gerningum, og á þann spámann Noadia, og á þá adra spámenn sem mig villdu hræda.

15. Sídan urdu múrveggerner albúner, þann fimmta og tutugasta dag í elul mánude, á tolf og fiorutíu døgum.

16. Og sem aller óviner vorer þad heyrdu, þá óttudust aller heidingiar, þeir sem í kringum oss voru, so øll þeirra hughreyste fell, þviad þeir merktu, ad soddann gerningur var af Gude.

17. Og á þeim tímum voru þeir marger af Juda høfdingium, ad þeirra bref geingu til Tobiam, og frá Tobia til þeirra.

18. Þviad þar voru marger í Juda, sem voru eidsvarar hans, þvi hann var mágur Sachaniæ, sonar Arah, og hans sonur Johanan hafde dóttur Mesullam, sonar Berechia.

19. Og þeir hældu hønum fyrer mer, og flúttu hønum mín ord. Og Tobias sende bref ad skelfa mig.

## 7. Capitule.

1. Þá ver høfdum nú uppbygt múrveggena heingde eg upp hurdernar, og þar voru tilsetter portvaktarar, saungarar, og Levitar.

2. Og eg bifalade mínum brodur Hanani, og Hanania, þeim hallar fovita í Jerusalem, (þvi hann var einn trúfastur madur og Gudhræddur framm yfer marga adra.)

3. Og eg sagde til þeirra: eigi skulu upplátast Jerusalems port, fyrr enn heitt er orded af sólu, og þá enn er vered ad erfida, þá skulu portenn aptur lykiast og streinglast. Og þar voru vøkumenn setter af borgarmønnum Jerusalems, hver uppá sína vakt, og hiá sínu húse.

4. Þvi borgenn var víd, rúm, og stór, enn fólked var fátt í henne, og húsenn voru eigi byggd.

5. Og minn Gud gaf mer í hiarta, ad eg samansafnade rádsherrunum, og høfdingiunum, og so fólkenu, ad reikna þad. Og eg fann eitt ættarregistur uppá þá sem ádur voru komner af fángelsenu, og eg fann í þvi skrifad.

6. Þetta eru landsins børn, sem upp eru komenn af þvi útlendska fángelse, hvera Nabogodonosor,

kongur af Babylon, hafde burt-
flútt, og þeir voru komner aptur til
Jerusalem og Juda, hver í sína
borg.
7. Og voru komner med Soro-
babel, Jesua, Nehemia, Asaria,
Raámia, Nahemani, Mardochai,
Bilsan, Mispereth, Bigevai Ne-
hum, og Baena. Þetta er mann-
talid á Israels fólke.
8. Børn Pareos voru tvø þus-
und, hundrad síøtíu og tvø.
9. Børn Sephatia voru þríu
hundrud síøtíu og tvø.
10. Børn Arah, voru sex hund-
rud fimmtíu og tvø.
11. Børn Pahat Moab, á med-
al barna Jesua og Joab, voru tvø
þúsund, átta hundrud og átian.
12. Børn Elams, þusund, tvø
hundrud fiøgur og fimmtíu.
13. Børn Sathu, átta hundrud
fimm og fiørutíu.
14. Børn Sachai, sið hundrud
og sextíu.
15. Børn Benui, sex hundrud
fiørutíu og átta.
16. Børn Bebai, sex hundrud
tutugu og átta.
17. Børn Asgad, tvø þusund,
þríu hundrud tutugu og tvø.
18. Børn Adonikam, sex hund-
rud sextíu og sið.
19. Børn Bigevai, tvø þusund,
sextíu og sið.
20. Børn Adin, sex hundrud
fimmtíu og fimm.
21. Børn Ater, af Hiskia, níu-
tíu og átta.
22. Børn Hasun, þríu hundrud
tutugu og átta.
23. Børn Bezai, þríu hundrud
tutugu og fiøgur.
24. Børn Hariph, hundrad og
tolf.
25. Børn Gibeons voru níutíu
og fimm.
26. Menn af Bethlehem og Ne-
thopha, hundrad áttatíu og átta.
27. Mennerner af Anathoth,
hundrad tutugu og átta.
28. Mennerner af Beth Asma-
veth, fiørutíu og tveir.
29. Mennerner af Kiriath Jea-
rim, Caphira, og Beeroth, sið
hundrud fiørutíu og þrír.
30. Mennerner af Ráma og Ga-
ba, sex hundrud tutugu og einn.
31. Mennerner af Michmas,
hundrad tutugu og tveir.
32. Mennerner af BethEl og
Ai, hundrad tutugu og þrír.
33. Mennerner af annare Nebo,
fimmtíu og tveir.
34. Þeirrar annarar Elams
børn þusund, tvø hundrud fimm-
tíu og fiøgur.
35. Børn Harims, þríu hund-
rud og tutugu.
36. Børn Jericho, þríu hund-
rud fiørutíu og fimm.
37. Børn Lot-hadid og Ono, sið
hundrud tutugu og eitt.
38. Børn Senaa, þríu þusund,
níu hundrud og þriátíu.
39. Prestarner, børn Jedaiæ, af
húse Jesua, níu hundrud síøtíu og
þrír.
40. Børn Immers, þusund,
fimmtíu og tvø.
41. Børn Pashur, þusund tvø
hundrud fiørutíu og sið.
42. Børn Harims, þusund og
seitian,
43. Levitarner, børn Jesua, af
Kadmiel, á medal barna Hodua,
síøtíu og fiøgur.
44. Saungurarner, børn As-
saphs, hundrad fiørutíu og átta.
45. Dyraverderner voru, børn
Sallum, børn Ater, børn Talmons,
børn Akubs, børn Hathita, børn
Sobai, voru aller tilsamans hund-
rad þriátíu og átta.

46. Nethinim, børn Ziha, børn Hasupha, børn Thabaoth.

47. Børn Keros, børnSia, børn Padon.

48. Børn Libana, børn Hagaba, børn Salmai.

49. Børn Hanans, børn Giddels, børn Gahars.

50. Børn Reaia, børn Rezin, børn Nekoda.

51. Børn Gasams, børn Usa, børn Passeah.

52. Børn Besai, børn Megunim, børn Nephussim.

53. Børn Bakbuks, børn Hakupha, børn Harhurs.

54. Børn Bazlith, børn Mehida, børn Harsa.

55. Børn Barkos, børn Sisera, børn Thamah.

56. Børn Neziah, børn Hatipha.

57. Børn Salomons þenara voru børn Sothai, børn Sophereth, børn Prida.

58. Børn Jaela, børn Darkons, børn Giddels.

59. Børn Sephatia, børn Hattils, børn Pochereth af Zebaim, børn Amons.

60. Øll Nethinim og Salomonis þenara børn voru þríu hundrud níutíu og tvø.

61. Þesser ferdudust og upp, Mithel, Mela, Thel, Harsa, Cheub, Addon og Jmmer. Enn þeir kunnu eigi ad bivísa hús sinna fedra, eda þeirra sæde, hvert þeir væru af Israel.

62. Børn Delai, børn Tobiæ, og børn Nekodæ voru sex hundrud fiørutíu og tvø.

63. Og af prestunum voru børn Habaia, børn Hakos, børn Barsillai, hver ad tók eina kvinnu af Barsillai Gileaditers dætrum, og var nefndur epter þeirra nafne.

64. Þesser leitudu epter registre sinnar fædingar, og þá þeir fundu þad eigi, urdu þeir lauser vid kennemannsskapinn.

65. Og Hathirsatha sagde til þeirra: ad þeir skylldu ei — af því allraheilgasta, fyrr enn einn prestur uppkæme med Urim og Thummim.

66. Allur þesse almúge, so sem einn madur, var fiørutíu þusunder, tvø þusund, þríu hundrud og sextíu.

67. Auk þeirra þenara og ambátta, þad var ad tølu siø þusund, þríu hundrud þriátíu og siø, þeir høfdu og tvø hundrud fiørutíu og fimm saungara og saungkvinnur,

68. Og siø hundrud þriátíu og sex hesta, tvø hundrud fiørutíu og fimm múla.

69. Fiogur hundrud þriátíu og fimm úlfalda, sex þusund, siø hundrud og tutugu asna.

70. Og nockrer af þeim yppurstu fedrum gáfu til verksins. Hathirsatha gaf í fehirdsluna þusund gyllene, og fimmtíu skáler, fimm hundrud og þriátíu presta kyrtla.

71. Og nockrer þeir yppurstu fedur gáfu í fiársiódenn til gerningsins tutugu þusund gyllene, tvø þusund og tvø hundrud pund silfurs.

72. Og þad annad folk gaf tutugu þusund pund silfurs, og siø og sextíu kyrtla.

73. Og prestarner, Levitarner, dyraverderner, saungararner, og nockrer adrer af fólkenu, og þeir Nethinim, og allur Israel sette sig í sína stade.

## 8. Capitule.

1. Nú sem sá hinn siounde mánudur var komenn, og Israels børn voru í sínum stødum, samansafnadest allt fólked so sem einn mad-

ur, á þvi breida stræte, fyrer vatns-
portenu, og sagde til Esra hins
skriftlærda, ad hann skyllde láta
sækia Moses løgmáls bók, sem ad
Drottinn hafde boded Israel.

2. Og Esdras kennemadur bar
løgmáls bókena framm fyrer al-
múgann, bæde menn og kvinnur,
og alla þá sem hana kunnu ad skil-
ia, á þeim fyrsta deige þess siøun-
da mánadar.

3. Og hann las í henne á þvi
breida stræte, sem er fyrer vatns-
portenu, frá þvi ad lyste um morg-
unenn, og inn til middags, fyrer
kørlum og konum, og hverum þeim
sem skilia kunne, og allt fólked sne-
re sínum eyrum til løgmáls bókar-
ennar.

4. Enn Esdras sá skriftlærde stód
upp á einum háfum tre stóle, hvern
þeir høfdu gert ad predika á, og þar
stódu hiá hønum, Mathitia, Sema,
Ananja, Uria, Hilkia, og Maeseia,
til hægre handar. Enn hiá hans
vinstre stód Padaia, Misael, Mal-
chia, Hasum, Hasbadana, Sacha-
ria, og Mesullam.

5. Og Esdras opnade bókena
fyrer øllu fólke, þvi hann stód upp
yfer øllu fólkenu. Og sem hann
upplauk henne, þá stód allt fólked.

6. Og Esdras lofade Drottinn
þann mikla Gud, enn allt folk sva-
rade: amen! amen! med upphøfd-
um sínum høndum, og hneigdu sig,
og tilbádu Drottinn med andlite
til jardar.

7. Enn Jesua, Bani, Serebia,
Jamin, Akub, Sabthai, Hodaia,
Maeseia, Klita, Asaria, Josabad,
Hanan, Plaia, og Levitarner komu
fólkenu til ad gaumgæfa løgmál-
ed. Og fólked stód í sínum stad.

8. Og þeir lásu Guds løgmáls
bók klárlega, so ad menn skildu þad
þeir lásu.

9. Og Nehemias (sem er Ha-
thirsatha,) og Esdras kennemad-
ur, sá skriftlærde, og Levitarner,
sem eggiudu fólked til ad huglei-
da, þeir søgdu til alls folksins: þesse
dagur er helgadur Drottne ydrum
Gude, vered þvi eigi hrigger, og
gráted eigi. Þviad allt fólked gret,
þá þad heyrde løgmálsins ord.

10. Þvi sagde hann til þeirra:
fared og eted af þvi feita, og drecked
af þvi hinu sæta, sended þeim og
nockud sem eigi hafa neitt tilreidt,
þviad þesse dagur er heilagur vor-
um Drottne, þar fyrer sturled ydur
eigi, þviad glede Drottins er ydar
styrkur.

11. Og Levitarner stilltu allt
fólked, og søgdu: hafed hliodt, þvi-
ad þesse dagur er heilagur, hriggest
eigi.

12. Og allt fólked geck burt ad
eta og drecka, og ad senda einn part
þar af, og ad gera einn mikenn
føgnud, þviad þeir høfdu skiled þau
ord, sem menn høfdu kynnt fyrer
þeim.

13. Og annars dags komu þeir
yppurstu fedur tilsamans, medal
alls folksins, og kennemennerner,
og Levitarner, til Esdram þess
skriftlærda, ad hann skyllde under-
vísa þeim løgmálsins ord.

14. Og þeir fundu skrifad í løg-
málenu, ad Drottinn hafde boded
fyrer Mosen, ad Israels børn skyll-
du búa í laufskálum, á þeirre há-
tíd í þeim siøunda mánade.

15. Og þeir letu hliódbært verda
og úthrópa um allar þeirra borger,
og í Jerusalem, og segia: fared
út á fiøllenn, og sæked vidsmiørs
vidar greiner, hardslstres grein-
er, mirtustres greiner, palmvidar
greiner, og greiner af þyckum tri-
ám, so menn meige gera laufskála,
epter þvi sem skrifad stendur.

16. Og fólked geck út og sóttu, og gerdu sér laufskála, hver á sínu þake, og í sínum garde, og í gardenum hiá Guds huse, og á þvi breida stræte hiá vatns portenu, og á þvi breida stræte hiá Ephraims porte.

17. Og so allur almúge af þeim sem komner voru aptur af fángelsenu gerdu laufskála, og byuggu þar í. Þviad Israels børn høfdu eigi so gert, sídann Josua, sonur Nuns var, og allt til þessa dags. Og þar var ein miøg stór glede.

18. Þar var og lesid í Guds løgmáls bók hvern dag, frá þeim fyrsta deige allt til hins sídarsta, og þeir helldu hátídena í siø daga, enn á hinum áttunda deige helldu þeir samkomuna, so sem tilheyrde.

## 9. Capitule.

1. A þeim fiorda og tutugasta deige þessa manadar komu Israels børn tilsamans, med føstu og seckum, og molldu yfer ser.

2. Og þeir skildu Israels sæde frá øllum ødrum annarlegum børnum, og geingu framm, og játudu sínar synder, og sinna fedra misgerder.

3. Og þeir stódu upp í sínum stad, og þar var lesed í løgmáls bók Drottins þeirra Guds, fiorum sinnum á deige, og þeir játudu, og tilbádu Drottinn sinn Gud, fiorum sinnum á deige.

4. Og Levitarner stódu upp á troppunum, sem ad voru, Jesua, Bani, Kadmiel, Sebania, Buni, Serebia, Bani og Chenani, og kølludu hárre røddu til Drottins þeirra Guds.

5. Og þeir Levitar, Jesua, Kadmiel, Bani, og Hasabenia, Serebia, Hodia, Sebania, Pethahia, søgdu: standed upp, og lofed Drottinn ydarn Gud frá eylífd til eylífdar, og lofad se þitt dyrdarfulla nafn sem er upphafed, med allre blessan og løfgerd.

6. Þu Drottinn ert alleina, þú hefir skapad himenenn, og alla himnanna himna, med øllum þeirra her, jørdena, og allt þad sem þar á er, sióenn og allt þad í hønum er, alla hlute gerer þú lifande, og himensins her tilbidur þig.

7. Þu ert sá Drottinn Gud sem útvalder Abram, og útleidder hann frá Ur í Chaldea lande, og kallader hann Abraham.

8. Og þú fannst hans hiarta trúfast fyrer þer, og þú gerder eitt sáttmál vid hann, ad gefa hans sæde land þeirra Cananita, Hethita, Amorita, Pheresita, Jebusita, og Girgosita, og þu hefir endt þín ord, þvi þú ert rettlátur.

9. Og þu sást til eymdar vorra fedra í Egyptalande, og heyrder þeirra kall hiá þvi rauda hafe.

10. Og gerder teikn og stórmerke á Pharaone og øllum hans þenurum, og á øllu folke í hans lande. Þviad þú visser, ad þeir voru drambsamer á móte þeim. Og þú gerder þer eitt nafn, so sem þad er þennann dag.

11. Og þú í sundurskipter siónum fyrer þeim, so þeir gengu þurrer midt í gegnum siónn, enn kastader þeirra ofsóknurum nidur í diúped, so sem steine í miked vatn.

12. Þú leidder þá um daga med einum skýstólpa, enn um nætur med elldlegum stólpa, ad lýsa þeim á þann veg sem þeir skylldu fara.

13. Þú ste nidur á fialled Sinai, og talader vid þá, af himnenum, og gafst þeim sanngiarnann rett, og rett løgmál, góð bodord og setninga.

14. Þú kunngerder þeim þitt

heilaga sabbath, baudst þeim bodord, setninga, og løgmál, fyrer Mosen þinn þenara.

15. Og þú gaf þeim braud af himnum þá, þá hungrade, letst og uppsprettu vatn af steinenum, þá, þá þyrste, og talader til þeirra: ad þeir skylldu ganga þangad, og eignast landed ad erfd, yfer hvert þú upplypter þinne hende, ad gefa þeim þad.

16 Enn vorer fedur urdu drambsamer, og hardsvírader, so ad þeir hlyddu eigi þínum bodordum.

17. Og þeir villdu eigi heyra þeim, og minntust eigi á þau undur, sem þú gerder vid þá, helldur urdu þeir hardsvírader, og kostudu upp einu høfde, ad snúa ser aptur til þeirra þrældoms í þeirra þverúd. Enn þú, minn Gud! fyrergafst, og varst nádugur, miskunsamur, þolennmódur, og af mikellre miskunseme, og ydergafst þá eigi.

18. Og þó ad þeir gerdu steyptenn kálf, og søgdu: þetta er þinn Gud sem útleidde þig af Ægyptalande, og gerdu stóra gudlastan,

19. Þó samt ysergafst þú þá eigi í eydemørkenne, epter þinne stórre miskunseme, og sá skýstolpe vtik eigi frá þeim um dagana ad leida þá á veigenum, og eigi helldur elldstólpenn um nætur, ad lýsa þeim á veigenn þann sem þeir áttu ad fara um.

20. Og þú gafst þeim þinn godann anda, ad undervísa þeim, og þú villder eigi taka þitt mann frá þeirra munne, og þú gafst þeim vatn þá þá þyrste.

21. J fiorutíu ár forsorgader þú þá í eydemørkenne, so þá skorte ecke, í þeirra klæde fyrntust eigi, og þeirra fætur bólnudu eigi.

22. Þú gafst þeim kongaríke og þiódernar, og skipter þeim hingad og þangad, so þeir eignudust ad erfd land Sihons, kongsins í Hesbon, og land Ogs, kongsins í Basan.

23. Og þú fiølgader þeirra børnum, so sem stiørnur á himne, og þú slútter þá inn í þad land, sem þú hafder løfad þeirra fedrum, ad þeir skylldu fara þangad og eignast þad til erfdar.

24. Og børnenn fóru þangad, og tóku landed under sig til erfda, þú niburþrickter þá Cananita, landsins innbyggiara, fyrer þeim, og gafst þá í þeirra hendur, og þeirra konga og landsins folk, so þeir fóru med þá sem þeir villdu.

25. Og þeir yferunnu sterkar borger, og eitt feitt land, og inntóku til erfdar húsenn, full af allsháttudum audæfum, úthøggna brunna, víngárda, vidsmiørsgarda, og alldintre, af hverum madur etur yferfliotanlega, og þeir átu og urdu metter, og feiter, og lifdu í lystingum, fyrer þína mikla gædsku.

26. Enn þeir urdu óhlyduger og þverbrotner imóte þer, og kostudu þinu løgmále á bak ser aptur. Og þeir drápu þína spámenn sem vitnudu fyrer þeim, ad þeir skylldu snúa ser til þín, og gerdu miklar gudlastaner.

27. Því gafstu þá í þeirra óvina hendur, þeirra sem þá þiádu. Og þeir kolludu til þín á sínum hrellingar tíma, og þú heyrder þá af himnenum ofann, og fyrer þína stóru miskunseme gafst þú þeim frelsara, þá sem þeim hiálpudu af þeirra óvina høndum.

28. Enn þá þeir voru komner til hvílldar sneru þeir ser ad gera illt fyrer þer, þá ysergafstu þá í hendur þeirra óvina, so ad þeir drottnudu yfer þeim. Þá umsneru þeir ser, og kolludu til þín, og

þú bænheyrt er þá af himnenum, og hiálpader þeim mørgum sinnum epter þinne mikellre miskunsemne.

29. Þú letst vitna fyrer þeim, ad þeir skylldu snúa sér til þíns løgmáls. Enn þeir voru drambsamer, og hlyddu eigi þínum bodordum, og syndgudust imóte þínum rettindum (hver ef ad madurenn gerer, þá lifer hann í þeim.) Þeir sneru sínum herdum í burt, urdu hardsvírader, og hlyddu eigi.

30. Þetta leidst þu þeim í mørg ár, og letst vitna þeim fyrer þinn anda í þínum spámønnum, enn þeir tóku þad eigi sér til eyrna. Þar fyrer gafstu þá í folksins hendur í løndunum.

31. Enn søkum þinnar mikellrar miskunsemdar hefir þú eigi ølldungis láted verda úte um þá, eda yfergefid þá, þvíad þú ert nádugur og miskunsamur Gud.

32. Nú, vor Gud! þú mikle Gud, megtugur og hrædelegur, þú sem helldur sáttmálann og miskunseme, akta þú eige lítelsverda alla þá armædu sem yfer oss er komenn, og vora konga, høfdingia, presta, propheta, fedur, og yfer allt þitt folk, frá kongsins tíma í Assyria, allt til þessa dags.

33. Þú ert rettlátur í øllu því sem þú hefir láted yfer oss koma, því þú gerer rett, enn ver høfum vered ógudleger.

34. Og vorer kongar, høfdingiar, kennemenn, og fedur, hafa eigi breitt epter þínum løgum, eigi helldur aktad þín bodord, og vitnisburde, sem þú letst votta fyrer þeim.

35. Þeir þiónudu þer eigi í sínu kongarike, og í þínu stóra gotse, sem þú gafst þeim, og í því víta og feita lande, sem þú setter fyrer þá, og þeir sneru eigi frá sínu vondu athæfe.

36. Siá! ver erum þiónar í dag, og í því lande sem þú gafst vorum fedrum, ad eta landsins ávøxt og gæde: siá! þar inne erum ver nú þenarar.

37. Og þad mergfalldar sínar inntekter kongunum, hvera þú setter yfer oss fyrer vorar synder, og þeir drottna yfer vorum líkamum og fenade, epter sínum vilia, og ver erum í større náud.

38. Og í øllu þessu þá gerum ver eitt stadt sáttmál, og skrifum þad, og látum vora høfdingia, Levita, og presta, innsigla þetta.

## 10. Capitule.

1. Og þeir ed innsigludu, voru þesser; Nehemia Hathirsatha, sonur Hachalias, og Sedechia.
2. Seraja, Asaria, Jeremia.
3. Pashur, Amaria, Malchia.
4. Hattus, Sebania, Malluch.
5. Harim, Meremoth, Obadia,
6. Daniel, Ginthun, Baruch,
7. Mesullam, Abia, Meiamin,
8. Maasia, Bilgai, og Semaia, þad voru kennemennerner.
9. Enn Levitarner voru þesser; Jesua sonur Asanias, Binui, á medal barna Henadads, Kadmiel.
10. Og þeirra brædur, Sachania, Hodia, Klita, Plaia, Hanan,
11. Micha, Rehob, Hasabia,
12. Sachur, Serebia, Sebania,
13. Hodia, Bani, og Beninu.
14. Høfdingiar folksins voru, Pareos, PahathMoab, Elam, Sathu, Bani,
15. Buni, Asgad, Bebai,
16. Adonia, Biguai, Adin,
17. Ater, Hiscia, Asur.
18. Hodia, Hasum, Bezai,

19. Hariph, Anathoth, Neubai,
20. Magpiás, Mesullam, Hesir,
21. Mesejabeel, Zadok, Jaddua,
22. Platia, Hanan, Anaia,
23. Hosea, Hanania, Hasub,
24. Halohes, Pilha, Sobek,
25. Rehum, Hasabna, Maeseia,
26. Ahia, Hanan, Anan,
27. Malluch, Harim og Baena.

28. Og þad annad folk, prestarner, Levitarner, dyraverderner, saungararner, Nethinim, og aller þeir sem sig høfdu skiled frá fólkenu í landenu til Guds laga, med sínum kvinnum, sonum og dætrum, aller þeir sem þad gátu understaded,

29. Og þeir hiner yppurstu genguft þar under, sinna brædra vegna. Og þeir komu ad sveria, og skulldbinda sig med sínum eide, ad þeir skylldu ganga í Guds løgmále, því sem þeim var gefed fyrer Mosen Guds þenara, ad þeir villdu hallda og gera epter øllum Drottins vors sliornara bodordum, rettindum, og sidvenium.

30. Og ad ver skylldum eigi gefa fólkenu í løndunum vorar dætur, eigi skylldum ver helldur taka þeirra dætur til vorra sona.

31. Og þá fólked í landenu flutte á sabbaths døgum vøru og allskonar atvinnu til kaups þá skylldum ver eigi taka þad af þeim um sabbathsdaginn, og helga daga. Og ad ver á því siøunda áre skylldum láta allrahanda þyngsl vera frí.

32. Og leggia eitt bodord uppá oss, ad ver skylldum árlega gefa hinn þridia hlut af einum sekil, til þiónustugerdarennar, í vors Guds húse,

33. Sem er, til skodunarbrauda, til dagleg matoffurs, til daglegrar brennefórnar, til sabbathanna, til nymánada, og heilagra daga, og til þess helgada, til syndaoffurs, med hveru Israel verdur forliktur, og til allrahanda gernings í Guds vors húse.

34. Og ver kostudum hlute á medal kennemannanna, Levitanna, og folksins, um vidarins offur, hvad menn skyllde árlega færa til vors Guds húss, epter vorra fedra húsum á tilsettum tíma, til ad brenna á Drottins vors Guds altare, so sem skrifad stendur í løgmálenu.

35. Og árlega framm ad bera þann fyrsta vors lands gróda. Og allra trianna fyrstann ávert, til Guds húss.

36. Og þá frumgetnu af vorum sonum, og af vorum fenade, so sem skrifad stendur í løgmálenu, og frumburde af vorum nautum og saudum, ad ver skylldum færa allt þetta til Guds húss, til kennemannanna þeirra sem þiónudu í húse vors Guds.

37. Og ad ver skylldum bera framm hid fyrsta af voru deige, og af vorum upplyptingum, af allrahanda trés ávertum, vín og vidsmiør, til kennemannanna, í hirdsluarnar hiá vors Guds húse, og tiund af voru lande til Levitanna, ad Levitarner skylldu hafa tiund af øllum stødum, þar ver høfdum akurvinnu.

38. Og presturenn, sonur Aarons, skal og hafa med Levitunum af Levitanna tiundum, so ad Levitarner skulu uppfæra tiund af tiundunum til vors Guds húss, til hirdslunnar í Fatthúsenu.

39. Þviad Israels børn og børn Levi skulu uppfæra upplypting kornsins, vínsins, og vidsmiørsins, í hirdsluna, þar ed helgedoms kerenn eru, og prestarner sem þar þió-

na, og dyraverderner, og saungararner, so ad ver yfergefum eigi vors Guds hús.

## 11. Capitule.

1. Og hofdingiar folksins bygg:gu í Jerusalem. Enn þad annad folk kastade hlutum þar um, ad þeir letu koma einn part af tíu ad búa í Jerusalem, í þeim heilaga stad, hiner níu partar í borgunum.

2. Og almúgenn blessade alla þá menn sem ad voru lofstuglega viliuger til ad búa í Jerusalem.

3. Þesser eru landsins hofdingiar sem byuggu í Jerusalem. Enn í borgum Juda bió hver á sínu gotse í sínum stødum, sem var: Israel, presterner, Levitarner, Nethinim, og børn Salomonis þenara.

4. Og í Jerusalem byuggu nockrer af børnum Juda, og af Benjamin. Af børnum Juda, Athaia, sonur Usia, sonar Sacharia, sonar Amaria, sonar Sephatia, sonar Mahelaleel, af børnum Parez.

5. Og Maeseia, sonur Baruch, sonar Chalhose, sonar Hasaia, sonar Adaia, sonar Joiarib, sonar Sacharia, sonar Siloni.

6. Øll børn Parez. sem biuggu í Jerusalem, voru fiøgur hundrud sextíu og átta, sterker menn.

7. Þessi voru børn Benjamins, Sallu, sonur Mesullam, sonar Joed, sonar Pedaja, sonar Kolaja, sonar Maeseja, sonar Ithiel, sonar Jesaja.

8. Og epter hann Gabai, Sallai, níu hundrud tutugu og átta.

9. Og Joel, sonur Sichri, var þeirra forstandare, og Juda, sonur Senua, sá annar yfer stadnum.

10. Enn af prestunum byuggu Jedaja, sonur Jojarib, Jachin.

11. Saraja, sonur Hilkia, sonar Mesullam, sonar Zadoch, sonar Merajoth, sonar Ahitob, sem var hofdinge í Guds húse.

12. Og hans brædur, sem þiónudu í húsinu, þeir voru átta hundrud tutugu og tveir. Og Adaja, sonur Jerohams, sonar Plalia, sonar Amzi, sonar Sacharja, sonar Pashur, sonar Malchia.

13. Og hans brædur þeir yppursku á medal fedranna, þeir voru tvø hundrud fiorutíu og tveir. Og Amasai, sonur Asareel, sonar Ahusai, sonar Mesillemoth, sonar Immer.

14. Og þeirra brædur, mikler menn, voru hundrad tutugu og átta. Og Sabdiel, sonur Gedolim, var þeirra hofdinge.

15. Af Levitunum, Semajá, sonur Hasub, sonar Asrikams, sonar Hasabia, sonar Bunni.

16. Og Sabthai, og Josabad, af hofdingium Levitanna, í þeim ytre gerningum í Guds húse.

17. Og Mathania, sonur Micha, sonar Sabdi, sonar Assaphs, sem var hofdinge til ad byria þackargerdena til bænarennar. Og Bakbukia, sá annar á medal sinna brædra, og Abda, sonur Sammua, sonar Galal, sonar Jedithun.

18. Aller Levitarner í þeim helga stad voru tvø hundrud áttatíu og fiorer.

19. Enn dyraverder, Akub, Talmon, og þeirra brædur, sem tóku vara á portunum, voru hundrad siøtíu og tveir.

20. Enn þeir adrer af Israel, kennemenn og Levitar voru í øllum Juda stødum, hver a sinne erfd.

21. Og þeir Nethinim biuggu í Ophel, og Ziha, og Gispa, þeir heyrdu til þeim Nethinim.

22. Enn sá hinn ypparste yfer Levitunum í Jerusalem var Usi,

sonur Bani, sonar Hasabiæ, sonar Mathaniæ, sonar Micha. Af børnum Assaphs voru saungarar um þiónustugerdena í Guds húse.
23. Þvi þad var kongsins bifalning yfer þeim, ad saungarar ner skylldu trúlega hondla hvers dags skylldu verk.
24. Og Pethaia, sonur Mesesabeel af børnum Serah, sonar Juda, hann var kongsins bifalnings madur til allra þeirra gerninga, sem fólked skyllde gera,
25. Og barna Juda, sem voru þar úte á þorpunum í þeirra lande.
26. Þeir byuggu nockrer í Kiriath Arba, og í hennar dætrum, og Dibon, og hennar dætrum, og Kapzeel, og hennar þorpum.
27. Og Jesua, Molada, Bethpalet.
28. Hasarsual, Ber Seba, og hennar dætrum.
29. Ziklag, og Machena, og hennar dætrum.
30. J Enrimmon, Zarega, Jeremuth.
31. Sanoah, Adullam, og þeirra þorpum, í Lachis, og hennar Landeign, Aseka, og hennar dætrum. Og þeir høfdu herbuder frá Ber Seba allt til dalsins Hinnon.
32. Enn børn Benjamin af Gaba byuggu í Michas, Aia, Beth El, og hennar dætrum.
33. Og í Anathoth, Nob, Anania.
34. Hazor, Rama, Githaim.
35. Hadid, Ziboim, Neballat.
36. Lod, Ono, og í handverks manna dalnum.
37. Og nockorer Levitarner, sem høfdu part í Juda, byuggu á medal Benjamin.

## 24. Capitule.

1. Þesser eru þeir kennemenn og Levitar sem uppfóru med Zorobabel, syne Sealthiel, og Jesua. Seraia, Jeremia, Esra.
2. Amaria, Malluch, Hattus.
3. Sechania, Rehum, Meremoth.
4. Iddo, Ginthoi, Abia.
5. Meiamin, Maadia, Bilga.
6. Semaia, Jojarib, Jedaia.
7. Sallu, Amok, Hilkia, og Jedaia. Þesser voru høfdingiar medal kennemannanna, og þeirra brædra, á døgum Jesua.
8. Enn Levitar, þesser, Jesua, Benui, Kadmiel, Serebia, Juda, Mathania, þesser voru setter yfer þackargerdar embætted, hann, og hans brædur.
9. Bakbukia og Unni, þeirra brædur voru hiá þeim til vardhallds.
10. Jesua gat Joiakim, Joiakim gat Eliasib, Eliasib gat Jojada.
11. Jojada gat Jonathan, Jonathan gat Jaddua.
12. Og í tíd Joiakims voru þesser yppurstu fedur á medal kennemannanna: af Seraia var Meraia, af Jeremia var Hanania.
13. Af Esra var Mesullam, af Amaria var Johanan.
14. Af Malluch var Jonathan, af Sebania var Joseph.
15. Af Harim var Adna, af Meraioth var Helchai.
16. Af Iddo var Sacharia, af Ginthon var Mesullam.
17. Af Abia var Sichri, af Meiamin Moadia var Piltai.
18. Af Bilga var Sammua, af Semai var Jonathan.
19. Af Joiarib var Mathnai, af Jedaia var Usi.
20. Af Sallai var Kallai, af Amok var Eber.
21. Af Hilkia var Hasabia, af Jedaia var Nethaneel.

22. Og í tíd Eliasibs urdu Jojada, Johanan, og Jaddua, skrifader yppurstu fedur á medal Levitanna og kennemannanna, til kongsríkis Darii af Persia.

23. Enn born Levi, þeir yppurstu fedur, voru skrifader í annalum, allt til daga Johanans, sonar Eliasibs.

24. Og þesser voru hiner yppurstu á medal Levitanna, Hasabia, Serebia, og Jesua, sonur Kadmiels, og þeirra brædur hiá þeim, til ad lofa og þacker ad gera, so sem David Guds madur hafde boded, hvert vardhalld hiá ødrum.

25. Mathania, Bakbukia, Obadia, Mesullam, Talmon, og Akub, þeir voru dyraverder á vaktenne vid þrøskolldenn í dyrunum.

26. Þesser voru í tíd Joiakims, sonar Jesua, sonar Jozadaks, og á døgum Nehemiæ landsshøfdingia, og Esdræ kennemanns þess skriftlærda.

27. Enn til vígslu múranna í Jerusalem voru kallader Levitarner úr øllum þeirra stødum, so menn skylldu hafa þá til Jerusalem, og hallda vígsluna med glede og þackargerd, med saung, cimbalis, psollturum, og hørpum.

28. Og saungaranna børn søfnudust tilsamans, af landsálfum kringum Jerusalem, og af Nethophati búgørdum.

29. Og af húse Gilgal, og af økrum í Gibea, og Asmaveth. Þvíad saungararner høfdu bygt ser bæe í kringum Jerusalem.

30. Og prestarner og Levitarner hreinsudu sig, þeir hreinsudu og fólked, portenn, og múrenn.

31. Og eg let høfdingiana Judæ uppstíga á múrenn, og eg til setti tvo stóra packlætis chora, sem nádu út uppá múrnum, til hægre sídu ad mykiuportenu.

32. Enn Hosaia, og helmingurenn af Juda høfdingium, gengu epter þeim.

33. Og Asaria, Esra, Mesullam,

34. Juda, Benjamin, Semaia, og Jeremia.

35. Og nockorer af prestanna børnum, med þeirra basunum, sem var Sacharia, sonur Jonathans, sonar Semaiæ, sonar Mathaniæ, sonar Michaiæ, sonar Sachur, sonar Assaphs.

36. Og hans brædur, Semaia, Asareel, Milalai, Gilalai, Maai, Nethaneel og Juda, Hanani, med Davids Guds manns hliódfærum, og Esdra sá skriftlærde fyrer þeim.

37. Í móte brunnportenu, og þeir gengu ímóte þeim upp epter trøppunum til Davids borgar, á þann múr sem liggur til Davids húss, inn til vatnsportsins, í móte austre.

38. Sá annar þackargerdar chor geck þvert yfer, og eg epter þeim, og helmingurenn af fólkenu, uppá múrenn, til Ofna-turnsins, allt til þess breida múrs.

39. Og til Ephraims ports, og til þess gamla ports, og til Fiskeportsins, allt til turns Hananeels, og til turns Mea, allt til sauda portsins, og námu stadar í myrkastofu portenu.

40. Og so stódu þeir tveir þacklætis chorar í Guds húse, og eg og helmingurenn af þeim yppurstu med mer.

41. Og prestarner, sem voru Eliachim, Maeseia, Minjamin, Michaia, Elioenai, Sacharia, Hanania, med basunurnar.

42. Og Maeseia, Semaia, Eleasar, Usí, Johanan, Malchia, Elam,

og Asar, og saungararner sungu hátt, enn Jesrahia var forstandarenn.

43. Og á þessum sama deige voru færdar miklar fórner, og þeir voru glader, þviad Gud hafde gert þeim eina mikla glede, so ad allar kvinnur og børn glødduſt, og þeirra fagnudur í Jerusalem heyrdeſt lánga vega í burt.

44. A þessum tíma voru nockorer menn ſkickader yfer fehirdslurnar þar sem inne voru upplyptingar-offur, fyrstu ávexter, og tíunder, ad safna í þær af ekrunum, og um stadena, þeim hluta sem er í løgmálenu, til kennemannanna, og Levitanna, þviad Juda hafde glede af kennemønnunum og Levitunum sem stódu,

45. Og tóku vara á þeirra Guds vardhallde, og á vardhallde hreinsunarennar. Enn saungararner og dyraverderner stódu epter Davids og hans sonar, Salomons skipun.

46. Þviad í tíd Davids og Assaphs voru ſkickader þeir yppurstu saungarar, og lofsaungar, og þacklæte til Guds.

47. Enn allur Israel gaf saungurunum og dyraverdunum hlut, í tíd Serobabel og Nehemie, hvern dag sinn hlut, og þeir gáfu þad sem helgad var til Levitanna, enn Levitarner gáfu, þad helgad var til Aarons barna.

## 13. Capitule.

1. Og á þeim tíma var lesenn Mosis bók fyrer folksins eyrum, og þar fannst skrifad inne, ad Ammonitar og Moabitar skylldu alldrei koma í Guds samkundu.

2. Søkum þess, ad þeir komu eigi mót børnum Israels med braud og vatn, helldur soludu Balaam ímóte þeim, ad bølva þeim, enn vor Gud snere þeirre bølvan í blessan.

3. Enn sem þeir heyrdu ſóddan løgmál, skildu þeir alla framande menn frá Israel.

4. Og Eliasib kennemadur, sem ádur var settur yfer fehirdsluna hiá vors Guds húse, hann var venſladur Tobiæ.

5. Og hann hafde gert hønum eina stóra hirdslu, hvar úti þeir høfdu ádur lagt matoffur, reykelsed, kerenn, og tíundernar af kornenu, vínenu, og vidsmiørenu, epter bode Levitanna, saungaranna, og dyravørdslu mannanna, og þar med og emnenn prestanna upplyptingar.

6. Enn um þetta bil var eg eigi í Jerusalem, þá þeir frømdu allt þetta, þviad á því tolfta og tutugasta áre Artaxerxes, kongs í Babylon, kom eg til kongsins, og epter nockra daga feck eg af kongenum.

7. Ad fara til Jerusalem. Og eg merkte, ad þad var eigi godt sem Eliasib hafde gert vid Tobia, ad hann gerde hønum eina hirdslu í gardenum hiá Guds húse.

8. Og þad mislíkade mer miøg. Og eg kastade øllum kerum Tobiæ húss út úr kistunne,

9. Og baud þeim ad hreinsa kistuna. Og eg let þangad aptur kerinn Guds húss, matoffur, og reykelse.

10. Og eg fornam, ad Levitanna partur var þeim eigi gefenn, og því voru Levitarner og saungarar í burt flúner, hver til síns akurs, ad erfida.

11. Þá ávítade eg þá yppurstu, og ſagde: Því yfergefum ver Guds hús? enn eg heimte þá saman, og skickade þá í sinn stad.

12. Þá færde allur Juda þeim

tíunder af korne, víne. og vidsmiöre, til skats.

13. Og eg setti yfer skattenn Selemia kennemann, og Zadok þann skriftlærda, og af Levitunum Pedaia, og under þeirra hønd Hanan, son Sachurs, sonar Mathania, þvi þeir voru halldner trúer, og þeim var bifalad ad útskipta því med þeirra brædrum.

14. Minn Gud! minnstu mín í því, og afmá eigi mín misskunarverk, sem eg hefe gert vid míns Guds hús, og á hans vardhallde.

15. A þeim sama tíma sá eg í Juda, ad þeir trádu vínpressur um sabbathsdagenn, og innfærdu bindene, og afnatia klifiada med víne, vínberum, fíkium, og allshá ttadar byrder berast til Jerusalem á sabbatsdeigenum. Og eg vitnade fyrer þeimá þeim sama deige, þar þeir seldu fædslurnar.

16. Þar biuggu og nockorer af Tyro, þeir fluttu fisk, og allshá ttade voru, og seldu þad børnum Judæ og Jerusalem, um sabbathsdagenn.

17. Þá straffade eg þá yppurstu í Juda, og sagde til þeirra: hver er illska þesse sem þer gered, og vanhelged sabbathsdagenn?

18. Gerdu eigi ydrir fedur so, og vor Gud leidde alla þessa ólucku yfer oss, og yfer þennann stad? og þer auked enn nú reide yfer Israel, í þvi, ad þer vanhelged sabbatsdagenn.

19. Og þegar portenn í Jerusalem voru upplátenn fyrer sabbathsdagenn þá baud eg ad láta portenn aptur, og bifalade, ad þeim skyllde eigi upploked verda fyrr enn epter sabbathsdagenn. Og eg skickade nockra af mínum þenurum till stadarportanna, ad þar skylldu engar byrder berast inn um sabbathsdagana.

20. Þá voru kramararner og kaupmennerner um nóttena utan fyrer Jerusalem, med allrahanda vøru, og þad sinn eda tvisvar.

21. Þá vitnade eg fyrer þeim, og eg sagde til þeirra: Því erud þer á náttarþele ikring um múrana? ef þer gered þad enn einu sinni þá skal eg leggia hendur á ydur. Og frá þeim tíma komu þeir eigi á sabbathsdøgunum.

22. Og eg sagde til Levitanna, sem voru hreiner, ad þeir skylldu koma og geyma portenn, og helga sabbathsdagenn. Minn Gud! minnst þú mín í þessu, og þirm mer epter þinne mikillre miskun.

23. Eg sá og á þeim sama tíma, ad Gydingarner tóku ser eigennkonur af Asdod, Ammon, og Moab.

24. Og þeirra børn tøludu ad helminge tungumál þeirra í Asdod, enn kunne eigi ad tala Gydinga mál, helldur tøludu þeir epter hvers folks túngumále.

25. Og eg ávítade þá, og bølvade þeim, og sló nockora menn, og reitte hár af þeim, og eg tók eid af þeim vid Gud; þer skulud eigi gefa ydrar dætur þeirra sonum, eda taka þeirra dætur til ydara sona, edur til ydar siálfra.

26. Hefir eigi Salomon, Israelis kongur, syndgast í þessu? og þar var þó engenn kongur hønum likur á millum margra heidingia, og hann var kær sínum Gude, og Gud sette hann til eins kongs yfer allann Israel, þó komu þær útlendsku kvinnur hønum til ad syndgast.

27. Hafed þer eigi þad heyrt, ad þer gered slíka mikla vondsku, ad misgera vid vorn Gud, í því, ad þer taked útlendskar kvinnur?

28. Og einn af børnum Jojada, sonar Eliasibs, ypparsta kennemanns, hann hafde gert teingder vid Saneballat Horoniter, enn eg rak hann frá mer.

29. Minnst þú þeirra. Minn Gud! sem ad saurga kennemannskapenn, og prestanna sáttmála, og Levitanna.

30. So hreinsade eg þá af øllum útlendingum, og sette vardhalld, presta og Levita, hvern til sinnar þiónustu.

31. Til ad offra videnum í tilsettann tíma, og frumfórnum. Minnst þú á mig, minn Gud! til hins góda.

Ender á bók Nehemiæ.

# Bókenn Ester.

## 1. Capitule.

1. Þann tíd kongurinn Assverus ríkte frá India lande, og til Morlands, yfer hundrad sjø og tuttugu þiódløndum,

2. Og sem hann sat í sínu konglegu sæte, á slotenu Susan,

3. A þrídia áre hans kongsríkes, gerde hann eitt gestabod øllum sínum høfdingium og þenurum, og þeim villdustu af Persia og Meden, landstiornurum, og þeim ædstu mønnum, í sínum løndum.

4. Ad hann lete siá þann ypparlega ríkdom síns konunglegs ríkis, og prakt sinnar majestatis, í marga daga, sem var í hundrad og áttatíu daga.

5. Og sem þesser dagar voru útendader, gerde kongurenn eitt gestabod øllu þvi fólke sem var í Susans slote, bæde stórum og smáum, í sjø daga, í þvi hofe sem var í alldingardenum, hiá kongsins húse.

6. Þar hengu hvít, græn, og blá tiølld, saman bundenn med dyrmætu líne, og skarlats snurum í silfurhringum á marmara stolpum. Beckerner voru af gulle og silfre, golfed var lagt med grænum, hvítum, gulum, og svørtum marmara steinum.

7. Og menn báru dryckenn inn í gullegum kerum, og ætíd í ødrum og ødrum kerum, og kongsins vín var yfergnæfanlegt, so sem kongsins formegan var til.

8. Og ad engum var hallded, hvad míked hver skyllde drecka, þvi kongurenn hafde so bodeð øllum sínum forgangsmønnum í sínu húse, ad hver skyllde gera sem hønum best líkade.

9. Og drottningenn Vasthi gerde og so einnenn eitt kvenna gestabod, í þvi konunglega húse Assveri konungs.

10. Og á þeim siøunda deige sem kongurenn var ordenn gladur af víne, þá baud hann Mehuman, Bistha, Harbona, Bigtha, Abagtha, Sethar og Charcas, þessum sínum sjø herbergia sveinum, þeir ed Assvero konge þiønudu,

11. Ad þeir skylldu sækia Vasthi drottningu, og leida hana inn fyrer kongenn, med sinne konunglegre koronu, so hann lete fólked og høfdingiana siá hennar dæleglejka, þvi hún var dæleg.

12. Enn Vasthi drottning villde

eigi koma, epter ordum kongsins, fyrer kongsins herbergia sveina. Þá vard kongurenn miøg reidur, so hans grimd brann í hønum.

13. Og kongurenn talade vid þá hina vísu, hverer best vissu landsins sidvenin (þvíad konungleg málaferle urdu ad ske fyrer øllum enum hyggnustu í løgum og retti.)

14. Enn þeir enir næstu hiá hønum voru; Charsena, Sethar, Admatha, Tharsis, Meres, Marsena, og Memuchan, siø høfdingiar Persarum og Medorum, hverer ad sáu kongsins andlit, og fyrstu sæte høfdu í rikenu.

15. Hvern dóm ad dæma skyllde um Vasthi drottningu, fyrer þad, ad hún hafde eigi gert epter kongsins Assveri ordum, fyrer hans herbergia sveina.

16. Þá sagde Memuchan fyrer kongenum og høfdingiunum: Vasthi drottning hefir eigi alleinasta misgert vid kongenn, helldur og so vid alla høfdingiana, og vid allar þiódir þar sem ad eru í øllum løndum Assveri kongs.

17. Þvíad þesse drottningarennar breitne mun útberast til allra kvenna, so ad þær munu fyrerlyta sína menn fyrer þeirra augum, og munu so seigia: Assverus kongur baud sinne drottningu Vasthi ad koma til sín, enn hún villde eigi.

18. So munu nú høfdingia kvinnur í Persia og Meden seigia til allra kongsins høfdingia, þá þær spyria hvad drottningenn hefir gert, so mun þar af koma nog fyrerlitning og reide.

19. Þocknest þad kongeum, þá láte hann útganga eitt konunglegt bod, og láte þad skrifa epter løgmále Persarum og Medorum, hvert ad óriufanlegt er, ad Vasthi skule eigi meir koma fyrer Assverum kong, helldur ad kongurenn gefe hennar ríke þeirre, sem henne er næst, hver ad betre er enn hún.

20. Og ad þetta kongsins bref, sem gert verdur, hliome um allt hans ríke (sem miøg er vídt) so ad allar kvinnur hafe og hallde sína menn í heidre, hvert þeir eiga ad ser meira edur minna.

21. Þetta þocknadest kongenum, og so høfdingiunum: og kongurenn gerde epter ordum Memuchan.

22. Þá voru brefenn send út um øll kongsins lønd, í serhvert land epter þess skrife, og til serhvers folks epter þess tungumále, ad hver madur skal vera yferherra í sínu eigenn húse; og let tala epter síns folks tungumále.

## 2. Capitule.

1. Þá þetta var sked, og reide rann af Assvero konge, þá minntest hann á Vasthi, hvad hún hafde gert, og hver dómur genged hafde yfer hana.

2. Þá søgdu kongsins þenarar, þeir sem hønum þiónudu: menn leite kongenum epter ungum frídum meyum.

3. Og ad kongurenn sete umskignendur um øll lønd síns kongsríkis; þeir ed samansafne øllum ungum vænum meyum til Susans slots, í frúrstofuna, under hønd Hegai kongsins herbergis sveins, sá sem vardveiter kvinnurnar, ad hann gefe þeim þeirra skart.

4. Og hver sú mey sem kongenum þocknast verde hún drottning í stadenn Vasthi. Þetta líkade kongenum vel, og hann gerde so.

5. Og þar var einn Judaiskur madur á slotenu Susan, hann het Mardocheus, sonur Jair, sonar Simei, sonar Kis, sonar Jemim.

6. Sem hafde vered flúttur frá Jerusalem þá Jechonia Juda kongur var burt fluttur, hvern Nabugodonosor kongur flutte til Babylon.

7. Hann var fostre Hadassa, hún er Esther, hún var hans fødur brodurs dótter, þvi hún átte hverke fødur ne módur, og hún var miøg væn og fríd jungfru. Og þá hennar fader og móder øndudust, þá tók Mardocheus hana ad ser í dottur stad.

8. Þá þetta kongsins bod og løgmál barst út, og mørgum meyum var samansafnad á slotenu Susan, under hønd Hegai, þá var Esther tekenn til kongsins húss, under hønd Hegai, sá ed kvinnurnar geymde.

9. Og meyenn þocknadest hønum, og hún fann náð fyrer hønum. Og hann flytte ser med hennar skart, so hann gæfe henne sinn part, hann gaf henne siø fínar jungfrúr af kongsins húse, og þann besta samastad, sem var í frúrstofunne, valde hann henne og hennar iúngfrúum.

10. Enn Ester sagde hønum eigi frá sínu fólke, ne frá sinne ætt, þvi Mardocheus hafde boded henne, ad hún skyllde láta, engann þar af vita.

11. Og Mardocheus geck daglega í forgardenn hiá jungfrúr herbergenu, ad hann villde vita hvert Ester geck vel, og hvad um hana lide.

12. Og þá ásettur tíme hverrar jungfrúr var komenn, ad hún skyllde koma til Assverum kongs, epter þad hun hafde vered tolf mánude í kvenna skartenu, þviad þeirra skart vard ad hafa so langa tíd, sem var sex mánude med balsamum og myrru, og sex mánude med dyrlegum smyrslum, so urdu þá kvinnurnar fullprydd ar.

13. Sidann geck jungfrúenn til kongsins, og hvern hún villde, þá skyllde menn fá henne, sem ganga skyllde med henne frá jungfrúr herbergenu til kongsins húss.

14. Og þegar ein kom inn um kvøllded, geck hún aptur um morgunenn frá hønum í þá adra frúrstofu, under hønd Saasgas, sem var kongsins herbergis sveinn, hver ed vardveitte frillurnar, og hún mátte eigi koma aptur til kongsins, nema kongurenn villde, og lete kalla á hana med nafne.

15. Enn sem sá tíme kom, ad Esther, dotter Abihails, fødursbrodurs Mardochei, (hvera hann hafde teked ser til dottur,) skyllde koma til kongsins, þá bad hun einskis, utann hvad sem Hegai, kongsins herbergis sveinn, kvennavaktarenn sagde: og Esther fann náð hiá øllum þeim sem hana sáu,

16. Og Esther var tekenn til Assverus kongs, í hans konunglega hús, á þeim tíunda mánude sem het Tebeth, á siøunda áre hans ríkes.

17. Og kongurenn elskade Esther framm yfer allar kvinnur, og hún fann náð og miskun fyrer hønum, framm yfer allar jungfrúr, og hann sette þá konunglegu koronu á hennar høfud, og gerde hana ad drottningu í stadenn Vasthi.

18. Og kongurenn gerde øllum sínum høfdingium og þenurum eitt miked gestabod, og þad gestabod var gert vegna Esther. Og hann let løndenn hvílast, og skeinkte út konunglegar gáfur.

19. Og sem í annad sinn var safnad jungfrúnum, sat Mardocheus í kongsins porte.

20. Enn Esther hafde enn eigi

sagt til sinnar ættar, og eigi helldur kunngert um sitt folk, þvi Mardocheus hafde so boded henne, þviad Esther gerde epter hans ordum, lika so sem þá hann var hennar fóstre.

21. Og á þeim sama tima, sem Mardocheus sat í kongsins porte, urdu tveir af kongsins herbergis sveinum, Bigthan, og Theres, sem voktudu portdyrnar, reider, og hugdu ad leggia hendur á kong Assverum.

22. Þessa vard Mardocheus vís, og hann underviísade þad Esther drottningu, enn Esther sagde þad kongenum, Mardochei vegna.

23. Og þá menn rannsokudu þvilikt efne, þá fannst þad so, og þeir urdu báder heingder á tre. Og þetta var skrifad í annala bók fyrer kongenum.

## 3. Capitule.

1. Epter þetta sked gerde Assverus kongur Aman megtugann, hann var sonur Medatha Agagita, og upphóf hann, og sette hans sæte upp yfer alla hofdingia sem hiá honum voru.

2. Og aller kongsins þenarar, sem voru í kongsins porte, beigdu sín kne, og tilbáduAman, þvi kongurenn hafde so boded um hann. Enn Mardocheus beigde eigi sín kne, tilbad hann og eigi.

3. Þá sogdu kongsins sveinar Mardocheo, sem voru í kongsins porte, þvi brytur þú kongsins bod?

4. Og sem þeir sogdu þad daglega til hans: enn hann villde eigi hlyda þeim ad, þá underviísudu þeir þettaAman, ad þeir kynnu siá, hvert Mardochei ord væru stodug, þvi hann hafde sagt þeim, ad hann være Gydingur.

5. Og sem Aman sá ad Mardocheus beigde eigi sín kne fyrer honum, villde og eigi tilbidia hann, vard hann fullur af reide.

6. Og honum þokte einskis verdt ad leggia sínar hendur á Mardocheum alleina, þvi þeir hofdu sagt Aman til folks Mardochei, helldur ástundade Aman ad afmá Mardochei folk, alla Gydinga, sem ad voru í ollu Assveri kongsríke.

7. A þeim fyrsta mánude, þad er sá mánudur Nisan, á tolfta áre Assveri kongs, var hlutfalle kastad fyrer Aman, frá einum deige til annars, og frá mánude og til þess tolfta mánadar, sem var sá mánadur Adar.

8. Og Aman sagde til Assverus kongs: her er eitt folk útdreift, og útskipteft á medal allra þióda, í ollum londum þíns kongsríkes, og þeirra logmál er odruvís enn annara þióda, og þad breiter eigi epter kongsins logmále, og eigi er þad lídanlegt kongenum ad láta þad so vera.

9. Og ef ad kongenum þocknast so, þá skrife hann, ad menn tortíne þeim. So vil eg vega tíu þusund centener silfurs í embættis manna hendur, so þad leggest í kongsins fessióda hús.

10. Þá tók kongurenn sinn hring af hendenne, og feck Aman, syne Medatha Agagita, óvin Gydinga,

11. Og kongurenn sagde til Amans: þad silfur skal vera þer gefed, og þar ad auk folked, so þú gerer vid þad, hvad þer líkar.

12. Þá voru kallader kongsins skrifarar, á þrettanda deige þess fyrsta mánadar, og þad var skrifad so sem Aman bifalade kongsins hofdingium, og landsins fogitum, her og þar, í londunum, og hofdingium serhverrar þiódar, í londunum, her og þar, epter rite og tun=

gumále serhvers folks, under Asveri kongs nafne, og var innsiglad med kongsins hring.

13. Og þesse bref voru útsend med hlaupurum um øll lønd kongsins, ad menn skylldu afmá, drepa, og íhelslá alla Gydinga, bæde unga og gamla, børn og konur, á einum deige, sem er á þrettanda deige í þeim tólfta mánade, þad var sá mánadur Ader, og ad ræna þeirra áudæfum.

14. So var nú hliódande þesse Skrift, ad þeim var bifalad í øllum løndum, ad byrta þetta fyrer øllu fólke, ad þad skyllde vera reidubúed, á þeim sama deige.

15. Og hlaupararner geingu med skynde af stad, epter kongsins skipan. Og þad bod var uppsleiged á slotenu Susan. Og kongurenn og Aman sátu og druncku, enn borgenn Susan vard tvílrád.

## 4. Capitule.

1. Þá Mardocheus fornam allt þad sem sked var, þá reif hann sín klæde, og færde sig í seck og øsku, og geck út midt í stadenn, gret hátt og aumlega,

2. Og kom fyrer kongsins port, þvi eigenn mátte sá ganga inn um portsins dyr, sem einn seck yser ser hafde.

3. Og í øllum løndum, í hvern stad sem kongsins ord og bifalning kom, þar var einn mikell harmur á medal Gydinga, og marger føstudu, gretu, og syrgdu, og láu í seck og øsku.

4. Þá komu þiónustumeyar Esters, og hennar herbergis sveinar, og undervísudu henne þetta. Þá vard drottningenn miog óttasleigenn. Og hún sende Mardocheo klæde ad iklædast, og færa sig af seckn-um, enn hann villde ei medtaka þáu.

5. Þá kallade Esther til sín Hathach, einn af kongsins herbergiasveinum, sem stódu fyrer henne, og baud hønum um Mardocheum, ad hún feinge ad vita hvad þad var, og hvi hann lete so?

6. Þá geck Hathach út til Mardochenm, á stræte borgarennar, sem var fyrer kongsins porte.

7. Og Mardocheus sagde hønum allt hvad hønum var ad høndum komed, og frá þeirre summu silfurs, sem Aman hafde sagt, ad hann villde vega inn í kongsins fjárhús, vegna Gydinganna, til ad glata þeim.

8. Og hann feck hønum eina útskrift af þeirre bifalningu sem uppfest var í Susan, ad þá skyllde eydeleggia, ad hann synde Esther hana, og hann kunngerde henne, og bide henne, ad hún geinge inn fyrer kongenn, og gerde eina bæn til hans, og vitiade hans fyrer hennar folk.

9. Og nú sem Hathach kom inn, og kunngerde Esther Mardochei ord,

10. Þá sagde Esther til Hathach: og baud hønum so til Mardocheum.

11. Øllum kongsins þenurum er þad vitanlegt, og fólkenu í kongsins lande, ad hver sá madur, sem geingur inn til kongsins fyrer innann gardinn, hvert þad er helldur madur eda kvinna, sem eigi er kalladur, hann skal strax deya (nema so se, ad kongurenn rette ad hønum sína gullspíru, so ad hann hallde lífenu,) enn í þriátíu daga hefe eg eigi kollud vered inn fyrer kongenn.

12. Og þá þesse ord Esthers voru søgd Mardocheo,

13. Þá baud Mardocheus ad seigia Esther aptur, eigi skallt þú hugsa, ad þú muner frelsa þitt líf, fyrer þad, ad þú ert í kongsins húse, helldur enn aller Gydingar.

14. Og þó þú viler þeigia á þessum tíma, þá mun þó Gydingunum koma frelsan og hiálp úr einhverium ødrum stad, enn þú og þitt fødurs hús mun þá fyrerfaraft. Og hver veit nema þú se fyrer þessa tíma saker komenn til kongsríkesins?

15. Þá baud Esther ad seigia Mardocheo.

16. Far og kalla samann alla Gydinga, þá sem nú eru heima í Susan, og fasted fyrer mig, so þer hverke eted ne drecked í þriá daga, hverke dag ne nótt, eg og mínar þiónustumeyár vilum líka so fasta. Og þá vil eg ganga inn fyrer kongenn imóte løgmálenu; ef eg dey, þá dey eg.

17. Mardocheus geck í burt, og gerde allt þad sem Esther hafde hønum boded.

## 5. Capitule.

1. Og á þeim þridia deige skrydd: est Esther konunglegum skruda, og geck inn í forgardenn ad kongsins høllu, innan til gegnt kongsins herberge. Og kongurenn sat í sínu konunglega hásæte gagnvart húsdyrunum,

2. Og þegar kongurenn sá Esther drottningu standande í forgardenum fann hún nád fyrer hans augum. Og kongurenn útrette gullsprotuna þá hann hafde í sinne hende, ad Esther. Hún geck ad, og snart oddenn á sprotunne.

3. Þá sagde kongurenn til hennar: Esther drottning! hvad er þer? og hvers beidest þú? þó þú bider um helft míns ríkes, þá skal þer gefast þad.

4. Esther svarade: ef þad þocknast so kongenum, þá bid eg, ad kongurenn kome í dag, og Aman, til þess gestabods sem eg hefe tilbúed hønum.

5. Kongurenn sagde: fared sem skiótast og kalled á Aman, ad hann gere so sem Esther hefir sagt. Og sem kongurenn og Aman vóru komner til gestabodsins, hvert Esther hafde tilbúed,

6. Sagde kongurenn til Esther, þá hann hafde nú drucked vín: hver er bæn þín Esther? þad skal þer veitast, hvad gyrnest þú? þó þad være helmingur míns kongsríkes, þá skal þad ske.

7. Þá svarade Esther, og sagde: mín bæn og bón er þad.

8. Hafe eg funded nád fyrer kongenum, og ef þad líkar kongenum, ad veita mer mína bæn, og ad gera sem eg bid, þá kome kongurenn, og Aman, til þess gestabods sem eg vil tilreida fyrer þeim, so vil eg gera á morgun so sem kongurenn hefir sagt.

9. So geck Aman út á þeim deige gladur og med godum Huga. Enn sem hann sá Mardocheum í kongsins porte, ad hann stód eigi upp, og hrærde sig hverge fyrer hønum, vard hann fullur af reide vid Mardocheum.

10. Enn hann stillte sig þó. Og sem hann kom heim, þá sende hann út, og let samankalla sína vine, og sína hustru Seres.

11. Og framm talde fyrer þeim sína ríkdóms dyrd, og fiølda sinna barna, og so alltsaman, hvernenn ad kongurenn hafde miklad hann og upphafed, framm yfer alla kongsins høfdingia og þenara,

12. Einnenn sagde Aman, og

drottningenn Esther let engann koma med kongenum til gestabodsins sem hún tilbió utan mig, eg em og so bodenn til hennar á morgun med kongenum.

13. Enn allt þesta nægest mer eigi, so leinge sem eg se þann Gyding Mardocheum sitia hiá kongsins porte.

14. Þá svarade hans kvinna Seres hønum, og aller hans viner: gerest þar eitt tre fimmtíu álna hátt, og seig þú á morgun til kongsins: ad Mardocheus se heingdur á þvi, so kemur þu gladur til gestabodsins med kongenum. Þetta likade Aman vel, og hann let tilbúa tred.

## 6. Capitule.

1. Enn á þeirre nóttu gat kongurenn eigi sofed, og hann baud ad sækia skyllde annala bækur, og sogur. Og þá þær voru lesnar fyrer kongenum,

2. Þá kom þar ad sem skrifad var, hvernenn ad Mardocheus hafde underviísad um þá tvo kongsins herbergis sveina, Bigthana og Theres, þeir ed gættu kongsins dyra, hverju þeir høfdu bored ráð saman med ser, ad leggia sínar hendur á Assverum kong.

3. Og kongurenn sagde: hver æra og vegsemd er Mardocheo gerd fyrer þetta? þá sogdu smásveinar kongsins, sem hønum þióuudu: ecke hefir hann þar fyrer fenged.

4. Og kongurenn sagde: hver er þar í gardenum? (þviad Aman geck í gardenum utan fyrer kongsins herberge, þviad hann villde seigia kongenum, ad þeir mættu heingia Mardocheum á þad tre sem hann hafde tilbúed hønum.)

5. Og kongsins smásveinar sogdu til hans: siá! Aman stendur í gardenum. Kongurenn svarade: láted hann koma inu hingad.

6. Nú sem Aman var innkomenn, þá talade kongurenn til hans: hvad skal gera þeim manne hvern kongurenn vill giarnan vegsama? og Aman hugsade med ser, hvern mun kongurenn vilia vegsama helldur enn mig?

7. Og Aman sagde til kongsins: sá madur sem kongurenn vill giarnan heidra.

8. Hann skal sækiast, og íklædast þeim konunglegum klædnade, sem kongurenn plagar ad bera, so og se sóktur sá hestur sem kongurenn rídur siálfur á, og skal setia kongsins koronu á hans høfud.

9. Og þetta se afhendt, bæde klædnadurenn, og hesturenn, í hendur einum af kongsins høfdingum, sá same skal klæda þann mann sem kongurenn vill giarnan heidra, og leida hann á hestenum, um stræte borgarennar, og láta úthrópa fyrer hønum: so skal gera þeim manne sem kongurenn vill giarnan heidra!

10. Kongurenn sagde til Aman: far strax, og tak klædenn og hestenn, sem þu hefir sagt, og ger þetta, sem þú mællter, Mardocheo Gydinge, sem her situr fyrer kongsins porte, og lát eigi eitt bregdast af ollu þessu, sem þú talad hefir.

11. Þá tók Aman klædenn og hestinn, og iklæðde Mardocheum, og leidde hann um stræte borgarennar, og kallade hátt fyrer hønum: so skal gera þeim manne sem kongurenn vill heidra!

12. Og Mardocheus kom aptur fyrer kongsins port. Enn Aman fór sem skiótast heim til síns húss, syrgiande, og med huldu høfde.

13. Og hann greinde sinne kvinnu Seres, og so ollum sínum vin=

um, frá øllu þessu sem hann hafde hendt. Þá søgdu til hans, hans spekingar, og hans kvinna Seres, ef ad Mardocheus er af Gydinga sæde, fyrer hverum þú ert til tekenn ad falla, þá munt þú ei megna ad standa hønum imóte, hellldur muntu falla fyrer hønum.

14. Og er þeir voru enn nú ad tala þetta vid hann, þá komu kongsins herbergia sveinar þangad, og neyddu Aman ad hann skyllde koma til þess gestabods, sem Esther hafde reidubúed.

## 7. Capitule.

1. Þá ad kongurenn var nú komenn med Aman til gestabodsins, þess sem drottningenn Esther hafde tilreidt,

2. Þá sagde kongurenn enn annann dagenn aptur til Esther, þá hann hafde drucked vin: hvers beidest þú Esther drottning, ad þer skule veitast, og hver er bón þín? þó þad være helmingur mins rikis, þá skal þad ske.

3. Esther drottning svarade, og sage: hafe eg fundeð náð fyrer þer kongur, og ef þad likar kongenum, þá gef mer mitt lif fyrer skulld minnar bænar, og so minu fólke vegna minnar beidslu.

4. Þviad ver erum sellder, eg og mitt folk, so ver skulum eydeleggiast, drepast, og ihelslást. Og Gud gæfe, ad ver værum sellder til þræla og ambátta, so munda eg þeigia, so munde og óvinurenn engann skada kongenum gera.

5. Þá mællte Assverus kongur, og sagde til Esther drottningar: hver er sá? eda hver er hann, hvers hiarta slíkt dirfest ad taka ser fyrer ad gera?

6. Esther svarade: sá óvinur og mótstandare er þesse hinn vondi Aman. Enn Aman vard hræddur vid konginn og drottninguna.

7. Og kongurenn stód upp frá gestabodenu, og frá vínenu, med reidum hug, og geck í alldingardinn hiá høllinne. Og Aman stód upp, og bad Esther drottningu um sitt lif, þvi hann sá, ad hønum var alla reidu ólucka búenn af kongenum.

8. Nú sem kongurenn kom inn aptur úr alldingardenum hiá húsenu inn í salenn, þar hann hafde máltíd teked, þá lá Aman á becknum, þar sem Esther sat. Þá sagde kongurenn: vill hann og so slá drottningena íhel her í húse hiá mer? Þá þad ord geck út af kongsins munne, þá birgdu þeir Amans andlit.

9. Og Harbona, einn af herbergia sveinum kongsins, sagde: siáed! þar stendur eitt tre í Amans garde, fimmtíu álna hátt, hvert hann hefir tilbúed Mardocheo, sá sem godt talade kongsins vegna. Þá sagde kongurenn: heinged hann þar á.

10. Og so heingdu þeir Aman á þvi tre, sem hann hafde tilbúed Mardocheo. Og so stødvadest kongsins reide.

## 8. Capitule.

1. Og á þeim deige gaf Assverus kongur Esther drottningu Amans hús, óvinar Gydinga. Og Mardocheus kom fyrer kongenn, þvi Esther hafde sagt hønum, hvernenn hann var henne náenn.

2. Og kongurenn tók af ser sinn fingurbaug, sem hann hafde teked aptur af Aman, og gaf Mardocheo. Og Esther sette Mardocheum yfer hus Amans.

3. Og Esther talade enn framarmeir til kongsins, og fell til fóta

honum, og bad med gráte, ad hann villde í burtu taka illsku Amans Agagita, og hans áform, sem hann hafde uppþeinkt mót Gyðingum.

4. Þá rette kongurenn gullspíruna ad Esther. og Esther stód upp, og geck til kongsins.

5. Og sagde: ef þad þocknast kongenum, og hafe eg funded náð fyrer honum, og þad hage kongenum, og eg þocknest honum, þá se skrifad og aptur kallad rádagerdar bref Amans, sonar Medatha Agagita, sem hann skrifade, ad Gydinga folk skyllde dreped verda í öllum kongsins löndum.

6 Þviad hvernenn má eg horfa á þad vonda, sem koma mun yfer mitt folk. eda hvernenn má eg sjá upp á þad, ad mín ætt skuli so fyrerfarast?

7. Þá sagde Assverus kongur til Drottningar Esther, og til Mardocheum Gydings: sjá! eg hefe gefed Esther hús Amans, enn hann hafa menn heingt á gálga, þviad hann lagde sínar hendur á Gydinga folk.

8. Þar fyrer skrifed þid nú vegna Gydinga, so sem ydur líkar, under kongsins nafne, og innsigled þad med kongsins hring. Þviad allt þad sem skrifad er under kongsins nafne, og er sídann innsiglad med hans eigen hring, þad mátte eingenn madur aptur kalla.

9. Þá voru kallader kongsins skrifarar, á þeim sama tíma, á þeim þridia mánude, þad er sá mánudur Siuan, á þeim þridia og tutugasta deige. Og þar var so skrifad sem Mardocheus bífalade, til Gydinganna, og til höfdingianna, hirdstjóranna, og höfudsmennanna í löndunum, frá Indialande, og allt til Morlands, sem var hundrad, sio og tuttugu lönd, hvert lande epter sinne skrift, og hvert folke epter sínu tungumále, og so til Gydinganna, epter þeirra skrift og tungumále.

10. Og þetta var skrifad under kongsins Assverus nafne, og innsiglad med kongsins hring. Og hann sende brefenn med ridande sendemönnum á úngum múlum,

11. Hvar inne ad kongurenn gaf Gydingum leyfe, hvar sem þeir væru í stödunum, ad safnast saman, og ad standa fyrer sínu lífe, og ad afmá, drepa, og deyda alla magt þess folks og lands sem ad þeim þreyngde, med þeirra kvinnum og börnum, og ad ræna þeirra gotse,

12. Á einum deige, í öllum kongs Assveri löndum, sem var sá þrettande dagur í þeim tolfta mánude, þad er sá mánudur Adar.

13. Enn innehalld brefanna var þetta: ad ein bífalning være útgefenn yfer öll lönd, og skyllde opennberast fyrer öllu fólke, ad Gydingarner være vidbúner á þeim deige, ad hefna sín á sínum óvinum.

14. Og þeir rídande sendemenn á múlum ridu sem mest og skjótast epter skipan kongsins. Og þesse bífaling var uppsleigenn í Susan slote.

15. Og Mardocheus geck út frá kongenum í konungleguin klædum, gulum og hvítum, og iklæddur einum möttle af líne og purpura, med eina stóra gullkorónu. Og borgenn Susan gladdest og vard fagnande.

16. Enn Gydingum var komed ljós og fögnudur, glede, og dyrd.

17. Og í öllum löndum og borgum, í hvern stad sem kongsins ord og bodskapur náde, þá vard þar glede og fögnudur á medal Gyd-

inganna, gestabod og glededagar, so ad marger af lands fólkenu gerdust Gydingar, Þviad ótte Gydinga fell yfer Þá.

## 9. Capitule.

1. A Þeim tolfta mánude, Þad er sá mánudur Adar, á Þeim Þrettanda deige, hvern kongsins ord og skipan høfdu ákveded, ad Þar skylde ske, á Þeim sama deige, Þá óvinner Gydinganna vonudu ad yferfalla Þá, Þá snerest Þad so, ad Gydingarner áttu ad falla yfer sína óvine.

2. Þá samansøfnudust Gydingarner í Þeirra borgum, í øllum kongs Assveri løndum, ad leggia hendur á Þá sem Þeim vildu vondt. Og engenn kunne ad standa Þeim ímót, Þviad Þeirra ótte var komenn yfer allt folk.

3. Og aller høfudsmenn í landenu, høfdingiar og landstiornarar, og kongsins embættis-menn upphófu Gydingana, Þviad ótte Mardochei kom yfer Þá.

4. Þviad Mardocheus var nú ordenn megtugur í kongsins garde, og hans rikte hliómade út um øll lønd, hversu honum fære framm og hann mikladest.

5. So slóu nú Gydingarner alla sína óvine med sverdsslage, drápu Þá og slóu Þá íhel, og gerdu vid Þá, sem Þeirra óviner voru, epter sínum vilia.

6. Og í høfudborgenne Susan slóu Gydingarner fimm hundrud manns íhel, og drápu Þá.

7. Þar med drápu Þeir og so Parsandatha, Dalphon,

8. Aspatah, Poratha, Adalia, Aridatha.

9 Parmástha, Arissai, Aridai, og Vaiesatha,

10. Þá tíu sonu Amans, sonar Medatha, óvinar Gydinganna, enn Þeir løgdu eigi sínar hendur á Þeirra gots.

11. Enn á Þeim sama tíma kom talann Þeirra líflátnu fyrer kongenn á Susan slote.

12. Og kongurenn sagde til Esther drottningar, Gydingarner hafa sleiged fimm hundrud menn íhel, og dreped á Susans slote, og Þá tíu sonu Aman, hvad munu Þeir gera annarstadar í kongsins løndum? hvad óskar Þú ad Þer veitest meira? eda hvers bidur Þú framar meir?

13. Esther svarade: ef Þad Þocknast kongenum, Þá leyfe hann Gydingum, ad so sem Þeir hafa gert í dag, so meige Þeir gera og á morgun í Susan, ad Þeir heinge uppá Þad tre tíu sonu Amans.

14. Og kongurenn baud ad so skyllde ske. Og Þesse bifalning var uppsleigenn í Susan, og Þeir tíu syner Amans voru heingder.

15. Og Gydingarner søfnudust tilsamans í Susan, á Þeim fiortanda deige í mánude Adar, og drápu Þá enn Þríu hundrud manns, í Susan, enn Þeirra gotse ræntu Þeir eige.

16. Enn Þeir adrer Gydingar í kongsins løndum komu tilsamans, ad veria líf sitt, og ad Þeir mættu ná fride fyrer sínum óvinum, og Þeir drápu af Þeirra óvinum fimm og siøtíu Þusunder, enn Þeirra eigner letu Þeir kirrar.

17. Þad skede á Þeim Þrettanda deige í mánude Adar, enn Þeir hvildust á fiortanda deige í sama mánude, Þann gerdu menn til veitslu og glede-dags.

18. Enn Þeir Gydingar, sem voru í Susan, voru komner tilsamans, bæde Þann Þrettanda og fiortanda dag, og hvildust á Þeim

simmtanda deige, sá dagur gerdest ad gestabods og glede deige.

19. Þar fyrer gerdu þeir Gydingar sem binggu í smástødum, og kauptúnum, þann fiortanda dag í Adar mánude til gestabods og glededags, og hver sende ødrum skeinkingar.

20. Og Mardocheus breffette þessa gerninga, og sende brefenn til allra Gydinganna, sem voru í øllum kongs Assveri løndum, bæde nærre og sicerre.

21. Ad þeir skylldu medtaka og hallda þann fiortanda og simmtanda dag í mánude Adar, á hveru áre.

22. Epter þá daga á hverum Gydingar voru komner til róseminar, fyrer sínum óvinum, og epter þeim mánude, á hverum þeirra hørmung snerest til fagnadar, og þeirra sorg til glede dags, ad þeir skylldu hallda þá sømu daga fyrer gestabods og glede daga, og ad senda hver ødrum skeinkingar, og gefa þeim fátæku.

23. Og Gydingarner vidtóku ad gera það, sem þeir høfdu uppbyriad, og það sem Mardocheus skrifade þeim til.

24. Hvernen Aman, sonur Madatha Agagita, óvinur allra Gydinga, hafde huglagt ad fyrerkoma øllum Gydingum, og let kasta hlutum, ad hræda þá, og fyrerkoma þeim.

25. So og, hvernenn Esther geck inn fyrer kongenn, so ad kongurenn mællte, ad hans vonde áseningur, sem hann hafde hugsad ímóte Gydingum, skyllde fyrer bref snúast yfer hans eiged høfud, og hversu hann og hans syner med hønum voru heingder á tre.

26. Af þessu kølludu þeir þessa daga Purim, af hlutfallsins nafne, epter øllum ordum þessa brefs, og hvad þeir høfdu siálfer sed, og til þeirra hafde komed.

27. Og Gydingarner uppsettu þetta, og tóku það uppá sig og sitt sæde, og á alla þá, sem sig gáfu til þeirra, ad þeir villdu í engann máta yfergánga það, ad hallda þessa tvo daga árlega, epter því sem þeir voru skrifader og ákvardader.

28. Ad þesser tveir dagar skylldu eigi forgleymast, helldur skylldu þeir hallðast hiá þeirra barna børnum, og hiá øllum þeirra ættmønnum, í øllum løndum og borgum. Þesser eru þeir dagar Purim, hverer eigi skulu yfer trodast á medal Gydingalyds, og ad þeirra minning skal í engann máta nidurfalla hiá þeirra sæde.

29. Og Esther drottning, dotter Abihail, og Mardocheus Gydingur, skrifudu med ollu vallde, ad stadfesta þetta annad bref um Purim.

30. Og þau sendu brefenn til allra Gydinga, um lønd Assveri kongs, sem voru ad tølu hundrad tuttugu og siø, med ordum kiærleiks og sannleika.

31. Ad þeir skylldu stadfesta þessa daga Purim, á sínum tilsetta tíma, so sem Mardocheus Gydingur hafde tilsett þeim, og Esther drottning, so sem þeir høfdu undirbundest uppá þeirra sáler, og þeirra sæde, ad hallda þessa gerninga føstunnar og þeirra kalls.

32. Og Esther bifalade ad stadfesta þessa gerninga Purim, og ad þeir skylldu skrifast í eina bók.

## 10. Capitule.

1. Og Assverus kongur lagde skatt á landed og eyar siáfarins.

2. Enn aller hans gerningar,

velldе og magt, og sú mikla veg=
semd Mardochei, sem kongurenn
veitte honum: siá! þad er skrifad í
konganna Chronikum, í Persía og
Meden.
3. Þvi Mardocheus Gydingur
var nærstur Assverus konge, megt=
ugur á medal Gydinga, og þeckur
øllum sínum bræbrum, hver ad
leitade góds fyrer sitt folk, og lagde
hid besta til med øllu sínu sæde.

Endер á bókenne Esther.

# Jobs Bók.

## 1. Capitule.

1. Þar var einn madur í lande
Uz, hann het Job; sá same mad=
ur var einfalldur, rettlátur, guds=
hræddur, og fordadest hid vonda.
2. Hann átte sio sonu, og þríar
dætur.
3. Og hans kvikfe var sio þus=
under sauda, þríar þusunder ulf=
allda, fimm hundrud pør uxa, fimm
hundrud øsnur, og miøg mørg hiú,
og hann var ágiætare enn aller
þeir adrer sem biuggu í austurálf=
unne.
4. Og hans syner fóru til og
gerdu gestabod, hver í sínu húse á
sínum deige, og þeir sendu út, og
budu systrum sínum þremur til ad
eta og drecka med ser.
5. Og þá einn gestabods=dag=
urenn var umlidenn, sende Job
burt, og helgade þá, og stód upp
snemma morguns, og offrade bren=
nefórnum, epter allra þeirra tølu,
þviad Job hugsade so; ske má, ad
syner míner hafe syndgast, og bless=
ad Gud í sínum hiørtum. So ger=
de Job alla daga.
6. So bar til einn dag, ad Guds
børn komu og gengu framm fyrer
Drottinn, þá kom og Satan á med=
al þeirra.
7. Og Drottinn sagde til Sat=
ans: hvadan komstu? Satan svarade
Drottne, og sagde: eg hefe fared í
gegnum landed umkring.
8. Drottinn sagde til Satans:
gætter þú eigi ad mínum þenara
Job? þviad hans líke er eigi í lan=
denu, einfalldur, rettlátur, guds=
hræddur, og fordast þad vonda.
9. Satan svarade Drottne, og
sagde: meinar þú, ad Job óttest
Gud fyrer ecke?
10. Hefir þú eigi verndad hann,
hans hús, og allt þad hann hefir
allt umkring? þú hefir blessad hans
handaverk, og hans gots hefir út=
breidt sig í landenu.
11. Enn rett þú þína hønd út,
og snipt til alls þess sem hann hef=
ir, hvad gillder, hann mun blessa
þig under augun?
12. Drottinn sagde til Satans:
siá! allt þad ed hann hefir, þad se
þer í hende, utann þad einasta, ad
þú legg eige þína hønd á hann
siálfann. Þá geck Satan út frá
Drottne.
13. Og á þeim deige, þá hans
syner og dætur átu og druncku vín
í húse síns frumgetna brodurs,
14. Þá kom einn sendebode til
Jobs, og sagde: uxarner plægdu,
og øsnurnar voru þar í haganum
hiá þeim.
15. Þá fellu þeir af ríke Ara=
bia út, og tóku þá, og slóu þiónustu=

mennena med sverds eggium, og eg komst einn undann, ad kunngera þer þetta.

16. Þá hann var enn nú ad tala þetta, þá kom einn annar, og sagde: Guds elldur fell af himnum ofann, og brende bæde saudena og þiónustumennena, og fortærde þeim og eg komst einn undann ad undervísa þer þad.

17. Þá hann enn nú talade kom einn og sagde: þeir Chaldei gerdu þríar fylkingar, og yferfellu ulfalldana, og í burt tóku þá, og íhelslóu þiónustumennena med sverds eggium, og eg einn komst undann ad kunngera þer þetta.

18. Á medann hann var þetta ad seigia þá kom einn og sagde: þíner syner og dætur átu og druck í húse síns frumgetna brodurs.

19. Og siá þú, þar kom einn mikell stormur af eydemørkenne, og sleytte uppá þau fiogur hornenn hússens, og fleygde því nidur, yfer sveinana, so ad þeir dóu, og eg komst einn undann, ad eg undervísade þer þetta.

20. Þá stód Job upp, og ifsundurreif sín klæde, og rette sitt høfud, og fell til jardar og tilbad.

21. Og sagde: nakenn kom eg út af minnar modurkvide, nakenn mun eg og burt aptur fara. Drottinn gaf, Drottinn í burt tók þad, lofad sé nafned Drottins.

22. Í øllu þessu syndgadest eigi Job, og eige gerde hann neitt fávíslegt í gegn Gude.

## 2. Capitule.

1. Þad skede á beige nockorum, þá ed Guds børn komu, og geingu framm fyrer Drottinn, þá kom Satan á medal þeirra, og geck framm fyrer Drottinn.

2. Þá sagde Drottinn til Satans: hvadann komstu? Satan svarade Drottne, og sagde: eg hefe genged í gegnum landed allt umkring.

3. Drottinn sagde til Satans: hefir þú eigi gefed gætur ad mínum þenara Job? því ad hans líke er eigi í landenu, einfalldur, rettlátur, gudhræddur, og fordast hid vonda, og helldur enn nú fast á sínum frómleika, enn þú hefir komed mer til, ad eg hefi fordiærfad hann fyrer saklevse.

4. Satan svarade Drottne og sagde: húd fyrer húd, og allt hvad madurenn hefir til, þá gefir hann fyrer sitt líf.

5. Enn rett þú þína hønd út, og hrær hans bein og hollð, hvad gilder? hann mun blessa þig under augun.

6. Drottinn sagde til Satans: siá þú! hann se í þinne hende, enn hlýf þó hans líse.

7. Þá geck Satan út frá auglite Drottins, og sló Job med illum sárum, frá hans ylium, til hans hvirfels.

8. Og hann tók eina skel, og skóf sig med, sitiande í øsku.

9. Og hans húsfreya sagde til hans: ert þú enn stadfastur vid þinn frómleika? já blessa þú Gud, og far ad deya.

10. Og hann sagde til hennar: þú talar sem fávísar kvinnur tala. Fyrst ver høfum medteked hid góda af Gude, hvar fyrer skulum ver þá og eigi einnenn líka medtaka hid vonda? í øllu þessu þá syndgade eigi Job med sínum vørum.

11. Enn þá þeir þrír viner Jobs heyrdu alla þá óluck sem yfer hann hafde komed, komu þeir, hver af sínum stad, Eliphas af Theman, Bildad af Suah, og Zophar af Naema, því ad þeim kom ásamt, ad

þeir villdu koma og hafa medaumkán yfer hønum, og hugga hann.

12. Og þá þeir upplyptu sínum áugum áleingdar, þecktu þeir hann eigi. Og þeir hófu upp sína raust og gretu, og hver þeirra sunderreif sín klæde, og jós í lopted molldu yfer høfud sig.

13. Og þeir sátu á jørdu med hønum í sjø daga, og sjø nætur, og þeir tøludu eigi neitt vid hann, Þviad þeir sáu, ad hans pína var hardla mikel.

## 3. Capitule.

1. Epter þad upplauk Job sínum munne, og bølvade sínum deige.

2. Og Job svarade og sagde:

3. Fyrerfarest sá dagur á hverjum eg em fæddur, og sú nótt á hverre sagt var: sveinbarn er geted,

4. Vere sá dagur myrkur, og Gud her ofan ad skyllde eigi spyria epter hønum, ecke ljós skyllde skína yfer hønum.

5. Myrkur og þoka skyllde yferfalla hann, þíck ský skyllde vera yfer hønum, og þokusvælann dagsins grra hann ógnarlegann.

6. Og myrkred inntake þá nótt, so hun glede sig eigi á medal daganna ársins, og kome hún eigi helldur í mánadanna tølu.

7. Siá! vere sú nótt einmana, og engenn gledskapur se á henne.

8. Bølve henne þeir sem formæla deigenum, og þeir sem reidubúner eru til ad uppvekia þann Leviathan.

9. Stiørnur hennar verde myrkar í hennar rockre; hún vone epter ljósenu, og þad kome eigi, og eigi lyte hún augabrún morgunrodans,

10. Af því, hún ei aptur luckte dyrnar míns kvidar, og byrgde eigi þá ógiæfuna fyrer mínum augum.

11. Hvar fyrer dó eg eigi í modurkvide? Því fyrerfórst eg þá eigi, þegar ad eg kom af minnar modurlífe?

12. Hvar fyrer var eg lagdur í kiølltu? hvar fyrer var eg á brióste uppfæddur?

13. Því þá læge eg nú og være kirr, svæfe og hefde hvíld.

14. Med kongunum og rádsherrunum jardarennar, sem byggia þad sem í eyde er.

15. Ellegár med þeim høfdingjum sem gulled eiga, og þeirra hús eru full af silfre.

16. Edur falenn so sem einn ótímabær burdur, og være eigi neitt, so sem ad þau ungu børnenn er alldrei sáu ljósed.

17. Þar verda hiner ógudlegu og ómilldu ad láta af grimmdar ædenu; þar hvíla sig þeir ed haft hafa miked erfide.

18. Þar hafa og fángarner frid hver vid annann, og heyra eigi kvalarans hljód.

19. Þar eru bæde smáer og stórer, þrællenn, og sá sem frials er gefenn af sínum Herra.

20. Hvar fyrer er ljósed gefed hinum vesæla, og lífed sorgbitnum hiørtum.

21. (Þeim sem bída epter dáudanum, og hann kemur eigi, og græfe hann giarnann út af filsnunum.

22. Þeir sem gledia sig miøg, og eru glader vid þad, ad þeir mege komast til grafarennar.)

23. Og sá madur, hvers vegur ad byrgdur er, og Gud byrger þann sama fyrer hønum.

24. Því þá nær eg skal matar neyta, blyt eg ad andvarpa og minn grátur útrennur sem vatn.

25. Því það, hvað eg hræddest, það er yfer mig komed, og fyrer því sem eg kvídde, það hendte mig.

26. Var eg eigi luckusamlegur? var eg eigi að hófe spaklátur? haf. de eg eigi góða hvíld? og þar kom sódðann ónáð.

## 4. Capitule.

1. Þá svarade Eliphas af Theman, og sagde:

2. Kann vera, að þú viler eigi giarnan, það menn reyne til þess að tala við þig.

3. Enn hver fær bundest þessa? siá! þú hefir frædt margann, og styrkt þreyttar hendur.

4. Þín ræða hefir uppreett þá sem nidur voru fallner, og þú hefir styrkt þau skiálfande kne.

5. Enn nú að það kemur yfer þig, þá drypur þú nidur, og nú það snerter þig, þá skelfest þú við.

6. Er það þín gudhræðsla, þitt traust, þín von, og þinn frómleike?

7. Kære! hugsa þig um það. Nær hefir hinn saklause nockurn tíma fyrer farest? eða hvar hafa hiner rettferdugu nockurn tíma vered afmáder?

8. So sem eg hefe vel sed, að þeir sem plægðu armæðu og nidursáðu ógiæfunne, að þeir uppskaru og það sama.

9. Að þeir tortíndust fyrer Guds anda, og eru eydelagðer af anda hans reide.

10. Leonsins grenian, og hlióð þess mikla Leonsins, og tennur þeirra ungu Leonanna eru í sundur brotnar,

11. Leoned er tortínt, so það ræner eigi framar, og hvelpar Leonsinnunnar eru í sundurtvíst-rader.

12. Og eitt heimulegt orð er komed til mín, og mitt eyra hefir medtekeð eitt orðkorn af því hinu sama.

13. Þá eð eg hugleydde synena á nóttunne, nær svefnenn fellur yfer mennena.

14. Þar kom hræðsla og skiálfte yfer mig, og skelfde öll mín bein.

15. Og þá eð andenn geck framm fyrer mer, ýdust upp mín hár, á mínum líkama.

16. Þá stód þar ein mind fyrer mínum augum, og eg þeckta eigi þann svip; hlioðt var, og eg heyrde eina raust.

17. Hvernenn má madurenn vera rettvísare enn Guð? eða nockur madur hreinne enn sá, sem hefir gert hann?

18. Siá þú! engenn er óstraffanlegur á mille hans þenara, hann finnur og fávitsku á meðal sinna sendeboða.

19. Hversu miklu framar í hiá þeim sem binggu í leirhúsunum, hverer að grundvallan hafa á jörðunne, og uppetast skulu af mødkum?

20. Það varer í frá morgne, allt til kvellds, þá verða þeir upphøggner, og áður enn þá þess varer, þá eru þeir olldungis í burtu.

21. Og þeirra epterblifan fyrerfarast einnenn, og deya burt so óvarlega.

## 5. Capitule.

1. Nefn þú mer einn, hvað gilldir, ef þú finnur einn? siá þig umkring epter nockurs háttar heiløgum.

2. Fávísann mann þá fær vel reidenn til heliar dreiged, og vandlætingenn getur heimskum íþel komed.

3. Eg sá einn galenn gródursettann, og eg bølvade snarlega hans huse.

4. Hans børn skulu fiarlæg vera | hiálpræðenu, og þau skulu sund | urslási í borgarhlidunum, so ad | þeim mun engenn hiálpare vera.
5. Hiner hungrudu skulu upp- | eta hans hafstvinnu, og hiner her- | vopnudu skulu heim sækia hann, | og þeir enir þyrstu þá skulu þeir | uppdrecka hans gots.
6. Þviad armædann upp sprett- | ur eigi úr jørdunne, og giæfann | vex eigi úr akrenum.
7. Helldur so, madurenn fædest | til ógiæfunnar, líka sem þad fugl- | arner upphefiast til ad flinga.
8. Þó vil eg nú tala um Gud, | og skíra út af bønum.
9. Hann sem gerer mikla hlute | og orannsakanlega, og þær dád- | semder sem eigi kunna ut ad teliast.
10. Hann sem gefur regned á | jørdena, og lætur vatned koma á | veguna.
11. Hann sem upphefur hina nid- | urþricktu, og hiálpar hinum harm- | þrungna upp.
12. Hann, hver ed onyter ráda- | gerder þeirra illkióku, so ad þeirra | hønd fær þvi eigi af stad komed.
13. Hann høndlar hina vísu í | þeirra slægsmunnum, og umvelltir | rádum rángferdugra.
14. So ad þeir hlaupa um daga- | na í myrkrenu, og fara sálmande | um middeiged líka sem á nóttenne.
15. Hann frelsar hinn volada | frá sverdenu, og í frá þeirra mun- | ne, og í frá hende vollbugra.
16. Og þad er vonenn hins fá- | tæka, ad mann illskann hlytur ad | hallda sínum munne tilsamans.
17. Siá þú! sæll er sá madur | sem Gud leggur hirting á, þar fyrer | þá fyrerlít eigi hirtingena hins | almáttuga.
18. Þvi hann særer og græder, | hann sundurslær, og hans hønd | læknar.
19. Hann mun frelsa þig út af | þeim sex harmkvælum, og í þvi hi- | nu siounda mun eigi neitt illt á- | hræra þig.
20. Á hallæristídenne mun hann | frelsa þig frá daudanum, og í strí- | denu frá sverd síns hende.
21. Hann mun skyla þer fyrer | kere tungunnar, so þú hrædest eigi | fordiørfunena, nær ed hún kemur.
22. J foreydslunne og hungre- | nu munt þú hlæia, og fyrer villu- | dyrunum í landenu eigi hræddur | vera.
23. Helldur mun þinn sáttmále | vera vid steinana á folldunne, og | þau villudyrenn í landenu munu | hallda frid vid þig.
24. Og þú munt formerkia, ad | þín tialldbúd hefir frid, og þú munt | útvega þad, hvad heyrer til þíns | húss, og syndgast eigi,
25. Og þú munt þess var verda, | ad þitt sæde mun margfalldlegt | verda, og þitt afkvæme sem gras | á jørdu.
26. Og þú munt í elle koma til | grafarennar, líka sem bindene inn- | flytst á sínum tíma.
27. Siá! þad høfum ver rann- | sakad, og þad er so: hlyd þessu og | gef akt þar uppá.

## 6. Capitule.

1. Job svarade og sagde:
2. Þat sem madur villde vega | eymd mína, og leggia mína pínu | tilsamans í eina metaskál,
3. Þá være þad þyngra enn | sandurenn í siónum, þar fyrer er | þad til ónytis hvad eg tala.
4. Þviad skeytinn hins almátt- | uga standa í mer, og þeirra grimmd | utsygur minn anda, og Guds ogn- | aner eru stilltar uppá mig.

5. Skógdyrenn rynia eigi nær þau hafa grasið, og nauted beliar eigi nær það hefur sitt fódur.

6. Kann madurenn ad eta það sem ósalltad er? eda hver gætur smackad það hvíta sem utan um það rauda er í egginu?

7. Hvad mín sál villde ádur eigi hræra, það sama er nú út af angist mín fæda.

8. Oho! það mín bæn mætte ské, og Gud hana gæfe mer það eg vona epter.

9. Það Gud hann tæke til ad melia mig í sundur, og lete sína hønd ganga til ad sundurskipta mer.

10. Þá hefda eg enn hugsvalan, og eg villdi þar um bidia í mínum frankdome, ad hann vægde ei ad eins, eg hefe þó eigi neitad ordræ-du hins heilaga.

11. Hver er minn kraptur, so það eg kunne standast vid, og hver er mín endalykt, það mín sál mune þolinmod vera?

12. Minn kraptur er þó eigi af steinum, og mitt holld er eigi kopar.

13. Eg hefe og hverge neina hiálp, og mín formegan er í burtu.

14. Hver sem afseiger miskunsemena sínum náunga, hann yfergefur óttann hins almáttuga.

15. Míner brædur ganga forsoktunarlega framm hiá mer sem annar lækur, líka sem adrar vatnsváser, þær ed framm hiá flióta.

16. Þó samt, þeir sem fordast hrímfrosted, yfer þá mun sníorenn falla.

17. Á þeim tíma, þegar þreyngser ad þeim hitenn, mun þá ómætta upp, og nær þar tekur ad hitna, munu þeir forganga út af sínum stødum.

18. Þeirra vegur liggur affídis út af, þeir ganga í þá óveguna, og fyrerfarast.

19. Þeir horfa á þann veigenn til Thema, og hyggia ad þeim ferle til rikes Arabia.

20. Enn þeir munu til skammar verda, nær það er allra uggalausast, og skammast sín, nær ed þeir koma þangad.

21. Hviad þer erud nú komner til mín, og med því þer sjáed vesælldena, þá óttest þer.

22. Hefe eg nockud sagt færed hingad, og skeinked mer nockud af ydrum eignum?

23. Og frelsid mig af hende óvinarins, og frelsed mig af vallde víkingsins?

24. Kenned mer, eg vil þeigia, og leidretted mig um það, eg veit eigi.

25. Því finned þer ad rettu mále? hver er sá ydar á mille, ad því kunne ad finna.

26. Þer uppdickted ord, eigi til annars enn til straffa, og þer sláed ordum hins óhugbrausta í vind.

27. Þer yfergang veited fátækum fødurleysingia, og grafed grøf ydrum náunga.

28. Þó, fyrst þer hafed þetta so uppteked, þá hygged ad mer, hvert eg kann med lygemæle ad standast fyrer ydur.

29. Svared því til, hvad rett er, mitt andsvar skal enn vera rett.

30. Hvad gillder, ef mín tunga hefir órett, og minn munnur frammseiger það vondt er.

## 7. Capitule.

1. Hlýtur madurenn eigi alla tíma í stríde ad vera á jørdunne, og hans dagar eru líka sem eins daglaunara?

2. Eins líka so sem það þiónnenn lángar epter skugganum, og

verkmannenn, ad hans erfide fáe enda,

3. Líka so hefe eg vel heila mánudena erfidad til forgefens, og hast margar eymdarfullar nætur.

4. Pá ad eg lagdi mig utaf, sagde eg: hvenær skal eg uppstanda? og eftera, þá talde eg til, hvenær kvøllded munde koma, þviad eg var med øllu hvers manns viðbiódur allt til myrkurs.

5. Mitt holld vellur allt af mødkum, og oklárendum; mín húd er skorpenn og ad engu ordenn.

6. Míner dagar eru skyndelegar burtu flogner enn vindann vefarans, og eru so hiáfarner, ad þar var engenn vidstada.

7. Hugleid þad, ad mitt líf er vindur, og mín augu hverfa eigi aptur, til ad siá þad góda.

8. Og einskis lifanda auga þá mun siá mig leingur, þín augu líta á mig, þar af forgeing eg.

9. Skyed þad burt hverfur og lídur, eins líka og hann sem ofannfer í grøfena, hann kemur eigi upp aptur.

10. Og kemur eigi aptur í sitt hús, og hans stadur þecker hann eigi leingur.

11. Þar fyrer vil eg og eigi aptra mínum munne, eg vil tala um þá angist míns hiarta, og selgia af þeirre hørmungenne minnar sálar.

12. Hvert em eg siáfarhafed, edur stór hvalur, ad þú gaumgæfer mig so?

13. Nær eg hugsade, ad mín sæng skyllde hugsvala mer, og mín hvíla skyllde letta mer nockud.

14. Nær eg talade við sialfann mig, þá hrædder þú mig med draumum, og komst mer til ad skelfast.

15. So ad mín sála æskte ser uppheingd ad vera, og mín bein daudans.

16. Eg gyrnest eigi lengur ad lifa. Væg þú til vid mig, þviad míner dagar hafa vered til ónytis.

17. Hvad er madurenn þess ad þú virder hann mikels? og ber sorg fyrer hønum.

18. Þú forvitnast um hann dagleгana, og reyner hann á hverre stundu.

19. Enn þvi hefur þú þig eigi í burt frá mer, og lætur eigi af, þangad til, ad eg verd upp ad svelgia siálfs míns eigenn hráka?

20. Hafe eg syndgast, hvad skal eg gera þer? ó þú mannanna vardveitare! hvar fyrer gerer þú mer þad, ad eg sæyte mig so á þer, og eg se mer so siálfum einn byrdarþunge?

21. Og þvi fyrerlætur þú mer eigi minn misgerning, og burt tekur eigi mína synd? þviad nú mun eg leggia mig í jørdena, og nær ad morgnenum er ad mer leitad, þá emeg eigi til.

## 8. Capitule.

1. Pá svárade Bildad af Suah, og sagde:

2. Hversu lenge villtu tala soddan? og ord þíns munns hafa brambsamt ged?

3. Hvert þeinker þú, ad Gud hann dæme rángsamlegana? edur sá hinn almáttuge umsnúe rettenum?

4. Hafe þíner syner syndgast fyrer hønum, þá hefir hann burtkastad þeim fyrer þeirra misgerda saker.

5. Ef so er, ad þú gefur þig tímanlega til Guds, og grátbæner hann enn almáttuga,

6. Og ef þú ert hreinn og reitferdugur, þá mun hann uppvakna

til þín, og mun retta vid bústadenn aptur, fyrer þíns rettlætis saker.

7. Og hvad þú hefir ádur slíted haft, þad mun her epterá miked vid aukast.

8. Þvi spyr þú ad hinar forlidnu kinkvisler, og áset þer ad spyria þeirra forfedur.

9. Þviad ver erum frá þvi í gærdag, og vitum ecke; voret lífdagar eru skugge á jørdunne.

10. Þeir munu fræda þig, og seigia þer: og frammflytia sitt mál út af sínu hiarta.

11. Kann nockud sefed ad vaxa, utann þad stande í vatnenu, edur grafed upp ad spretta í vatusleysunne?

12. Ellegar þornar þad medan þad er í gródrenum, ádur enn þad er nidursleiged, ádur enn þad verdur hey.

13. So vegnar þad øllum þeim sem forgleyma Gude, og vonenn hræsnarans mun fortøpud verda.

14. Þvíad hans athvarf þad forgeingur, og hans von er einn kongulóar vefur.

15. Hann treystir uppá sitt hús, og mun þó ei staded geta; hann mun hallda sig þar vid, enn vera þó eigi stadfastur.

16. Hann hefir þó vel vøkvan, ádur enn þad sólenn kemur upp, og hans vidarkvister spretta vel í hans jurtra garde.

17. Hans ræde stendur þyckt hiá uppsprettunne, og hans hús á steinenum.

18. Enn þá, nær ed hann uppsvelger hann af sínum stad, mun hann hreita so vid hann, sem være hann hønum alls ókenndur.

19. Siá þu! þad sama er gledenn hans athæfes, og adrer munu úr dustenu uppvaxa.

20. Þar fyrer þá siá, ad Gud burtkastar eigi þeim hinum góðu, og hann helldur eigi vid magt hondum hinna illgiørnu.

21. Þangad til ad þinn munnur uppfyllest af hlatre, og þínar varer af kæte.

22. Og þeir sem þig hata munu til skammar verda, og tialldbúder hinna ómilldu munu eigi stadest geta.

## 9. Capitule.

1. Job svarade og sagde:

2. Já! eg veit þad nærsta vel, ad þad er so, ad madurenn kann eigi rettferduglega ad standa á móte Gude.

3. Hafe hann lysting til ad þrátta vid hann, þá kann hann eigi ad svara hønum einu imóte þusund.

4. Hann er vitur og megtugur: hverium luckadest þad nockurn tíma vel, sem settu sig á móte hønum?

5. Hann færer fiøllenn úr stad, ádur enn þau verda vør vid þad, þeim er hann umturnar í sinne reide.

6. Hann hrærer landed ur sínum stad, so ad þess stólpar hristast.

7. Hann seiger til sólarennar: þá kemur hún eigi upp, og hann innsiglar stiørnurnar.

8. Hann alleina útbreider himenenn, og geingur á bylgium siáfarins.

9. Hann gerer þann vagnenn á himnenum, og Orion, og siøstyrned, og stiørnurnar imót Sudrenu.

10. Hann gerer mikla hlute og órannsakanlega, og ótelianlegar dádsemder.

11. Siá þú! hann geingur framm yfer mig fyrr enn eg verd þess vís, og umskipter ser, fyrr enn eg formerke þad.

12. Siá þú! nær ed hann lídur skyndelega í burt, hver fær sókt

hann aptur? hver vill seigia til hans: hvad hefst þú ad?

13. Hann er Gud! engenn kann ad stilla hans reide, hinir stolltu herrarner hlióta ad lúta under hann.

14. Hvernenn skyllda eg þá svara honum, edur finna ord á móte honum?

15. Einnenn þó eg hefda rett, þá kann eg þó eigi helldur honum svar ad gefa, utann eg hlyt ad bidia um náð.

16. Enn þó eg kallade til hans: og hann heyrde, þá trúe eg þó eigi, ad hann heyre mína raust.

17. Þvíad hann fer yfer mig med stormvidre, og veiter mer marga ákomu fyrer sakleyse.

18. Hann lætur minn anda ei vidurkveikia sig, helldur uppfyller hann mig af harmkvælum.

19. Vile madur megt, þá er hann ofmegtugur, vile mann rettinn, hver vill vera minn vitnismadur?

20. Seige eg þad, ad eg se rettvís, þá fordæmer hann mig þó samt; se eg meinlaus, þá gerer hann mig þó sakadann.

21. Se eg rettlátur, þá þorer þó mín sála eigi ad taka ser þad til, eg hyrde eigi ad lifa lengur.

22. Þad er þad eina sem eg hefe sagt, hann fyrerfer bæde gódum og ógudlegum.

23. Nær ed hann tekur til ad húdstrykia, þá freyster hann jafnsnart framm til daudans, og hlær ad freistingum hinna meinlausu.

24. Enn landed verdur gefed í hendur þeirra ógudlegu, so ad hann nidurþricke þeirra domendur. Er þad eigi so, hvernenn skyllde þad ødruvíse vera?

25. Míner dagar hafa vered fliótare enn nockur hlaupare, þeir eru í burt flúner, og hafa ecke gott lifad.

26. Þeir eru forgeingner, líka sem þau sterku skipenn, líka sem þad ørnenn burt flygur til bráda.

27. Nær eg þeinke, ad eg vile gleyma minne kløgun, og láta mína burdé burt fara, og endurlífga mig.

28. Þá kvíde eg samt vid øllu mínu kvalræde, af þvi ad eg veit þad, ad þú lætur mig eigi vera saklausann.

29. Ef eg em nú ógudlegur, hvar fyrer líd eg þá þessa plágu til forgefens.

30. Þó ad eg þvoe mig upp í snióvatne, og hreinar gerde mínar hendur í brunnenum;

31. Þá dyfer þú mer þó midt nidur í saurenn, og mín føt munu þá fara mer svívirdelega.

32. Þvíad hann er eigi minn líke, þeim eg mætte svara, so ver kæmum sáman fyrer domenn.

33. Þar er engenn sá madur ockur kunne skilia, eige helldur sá sem kann ad leggia sína hønd á millum ockar beggia.

34. Hann take sinn vønd af mer, og burtláte frá mer sína ognan.

35. So ad eg meige tala, og þurfe eigi ad hrædast fyrer honum, ellegar kann eg eigi fyrer mig nockud ad gera.

## 10. Capitule.

1. Minne sálu leidist mitt líf; eg vil láta mitt kvein frammlída hiá mer, og tala um harmkvæle minnar sálar,

2. Og seigia til Guds: fordæm mig eigi; lát þú mig vita hvar fyrer þú þráttar vid mig.

3. Líkar þer þad, ad þú gerer ofurvalld, og í burt kastar mer?

þeim sem þínar hendur hafa skap-
ad, og gera so ráded hinna ogud-
legu til vegsemdar?
4. Hvert hefir þú einnenn lík-
amleg augu? eda ser þú so sem
madurenn ser?
5. Eda er þín tíd so sem manns-
ins tíd? eda þín ár so sem manns-
ins ár?
6. Ad þú spyrer epter mínum
misgerninge, og leiter epter mín-
um syndum?
7. Par þú veitst þó, ad eg em
eigi ógudlegur, þar þó engenn er,
sem kunne ad frelsa af þinne hende.
8. Pínar hendur hafa smídad
mig, og gert þad alltsaman hvad
eg em allt umkring, og þú nidur-
söckur mer so med öllu.
9. Minnstu þó þess, ad þú gerd-
er mig af jardar leire, og þad, ad
þú munt gera mig aptur ad jördu.
10. Hefir þú eigi mióíkad mig
sem adra miólk, og hleypt mer til-
samans sem ödrum ofte?
11. Þú íklædder mig med holl-
de og hörunde, og med beinum og
sinum samsetter þú mig.
12. Lífed og margt godt gafstu
mer, og þín umsión vardveitte minn
andardrátt.
13. Enn þó ad þú hyler slíkt í
hiarta þínu, þá veit eg þó þú hugs-
ar þad.
14. Nær eg syndgast, þá for-
merker þu þad jafnsnart, og lætur
mína synd eigi óstraffada.
15. Se eg ogudlegur, so er mer
þá vei, se eg rettferdugur, þá þore
eg eigi ad upplypta mínu höfde,
eg sem er fullur af forsmán, og se
mína eymdar veslöld.
16. Og líka sem annad öruggt
Leon, þá jagar þú mig, og haud-
terar so hrædelega aptur vid mig.
17. Þú endurnyar þín vitne á
móte mer, og margfalldar þína
reide í gegn mer, hver plágann
kemur epter adra samsleitt.
18. Hvar fyrer letstu mig koma
af medurkvide? oho! hefda eg fyr-
erfarest, og ad alldrei hefde neitt
auga mig sed.
19. Pá væri eg sem þeir alldrei
voru neiner, og í burt fluttur frá
minnar modur kvide til grafar-
ennar.
20. Skulu míner lífdagar stutt-
er eigi at fá enda? og mig fara lá-
ta, ad eg yrdi so nockud líted endur-
nærdur?
21. Fyrr enn ad eg fære í burt,
og kome ei aptur, sem er í land
myrkursins og dimmunnar.
22. Í þad landed, sem er þad
þicka mirkred, og þar engenn skip-
an er á, þar ed þad skín so sem
dimma.

## 11. Capitule.

1. Pá svarade Zophar af Naema, og segde:
2. Nær ed einn hefir lenge tal-
ad, má hann þá eigi afláta? skal og
málugur madur alltid rett hafa?
3. Skulu menn þeigia fyrer
þinnar margmælge saker, ad þú
spottar, og engenn gerer þer kinn-
roda?
4. Pú seiger: mitt mál, þad er
hreinferdugt, og eg em hreinn í þí-
nu auglite.
5. Oho! ad Gud villde tala vid
þig, og upploka sínum vörum.
6. Og kunngera þer hann heim-
uglega vísdóm, þviad hann hefde
vel meira ad höndla vid þig, so
ad þú mætter formerkia, ad hann
minntest eigi á allar þinnar mis-
gerder.
7. Meinar þú, ad þú muner vita
so miked sem Gud veit, og þad, ad
þú muner so fullkomlegana hitta

uppá alla hlute, sem sá hinn almáttuge?

8. Hann er hærre enn himenenn, hvad vilt þu gera? diúpare enn helvíted, hvad kann þú ad vita?

9. Leingre er hann enn jardríked, og breidare enn hafid.

10. Þó ad hann umvellte, edur niðurbyrgde, edur þeim í einn hóp tilsaman kaste, hver vill varna hønum þess?

11. Því hann þecker vel þá hegóma menn; hann ser vel þá ódygd; og skyllde hann eigi gæta ad því?

12. Enn fáseingur madur blæs sig upp, og ein fædd manneskia vill vera sem annad ungt villudýr.

13. Hefder þú tilbúed þitt hiarta, og útbreidt þínar hendur til hans,

14. Hefder þú láted þitt ránglæte, sem er í þinne hende, langt frá þer, so ad engenn óréttinde væru í þínu heimile,

15. Þá mætter þú upphefia þitt andlit óstraffanlega, og vera óruggur, enn eigi óttablandenn.

16. Þá munder þú gleyma armædunne og minnast so lítt á hana, so sem á vatned, er framm hiá rennur.

17. Og tímenn þinna lífdaga munde upprenna sem hádeiged, og myrkred munde verda sem liós morgun.

18. Og mætter þú hugsvala þer med því, ad þad være von fyrer hondum, og kynner so med hvíld í grøfina ad komast.

19. Og þú munder leggia þig, og engenn munde þig á fætur fæla, og marger mundu þá bidia fyrer þig.

20. Enn augun hinna óguðlegu þau munu veikare verda, og munu ei umflúed geta, þvíad á þeirra von þá skal sálu þeirra brestur verda.

## 12. Capitule.

1. Job svarade þá, og sagde:

2. Já! þer erud þeir menn, med ydur mun vísdómurenn deya.

3. Eg hefi og vel eitt hiarta sem þer, og er eigi minne háttar enn þer, og hver er sá sem eigi veit slíkt?

4. Hver hann verdur spottadur af sínum náunga, sá same mun ákalla Gud, og hann mun heyra hann, sá hinn rettvíse og hinn fróme hlýtur dáruskap ad líða.

5. Og þar er eitt fyrerlited lioßkorn fyrer þønkunum hins kirra, og búed til falls.

6. Eydeleggiaranna heimili þau hafa nægd, og þeir æda diarfleganа móte Gude, enn þó Gud hafe gefed þeim þad í þeirra hendur.

7. Frett þú kvikfíd ad, og mun þad kenna þer þad, og fuglarner himensins munu seigia þer þad.

8. Edur tala þú vid jørdena, og mun hún kenna þer þad, og fiskarner í siónum munu frammtelia þer þad.

9. Hver er sá ad eigi vite allt þad, ad hønd Drottins hafde gert þetta?

10. So þad í hans hende eru allra þeirra sáler sem lifa, og andenn alls holds hvers fyrer sig.

11. Prófar eigi eyrad ordræðurna? og munnurenn smackar matenn?

12. Já! í hiá þeim forfedrunum er vísdómurenn, og hiá þeim gømlu skilningurenn.

13. Hiá hønum er vitskann og vallded, rád og skilningur.

14. Siá þú! nær ed hann í sundurbrytur, þá hiálpar þar engenn uppbygging: nær ed hann innelyk-

ur nockurn, þá er þar engenn, sem upplykur.

15. Siá! nær ed hann inneftemmer vatned, þá verda aller hluter þurrer, og nær ed hann sleppet þvi út, þá rótar þad upp landenu.

16. Hann er ræslugur, og fær þad gert: hans er bæde sá sem villt fer, og hinn sá sem viller.

17. Hann leider þá enu klóku sem eitt herfáng, og gerer dómgrana heimskufulla.

18. Hann uppleyser þreyngíng konunganna, og med belltenu umgyrder hann þeirra lendar.

19. Hann leider prestana sem annad herfáng, og hann lætur þad bregdast þeim sterku.

20. Hann í burt snyr vorum sannmálugra, og hann í burt tekur sidveniur hinna gømlu.

21. Hann utheller smán yfer høfdingiana, og lausann gerer sáttmálann þeirra volldugu.

22. Hann opnar únderdiúpenn myrkranna, og útleider þad myrka til lioffens.

23. Hann gerde suma hvera ad mikelsháttar mønnum, og glatar þeim aptur. Hann útbreider eitt folk, og rekur þad tilsamans aptur.

24. Hann burt tekur hugdirfd høfdingianna folksins í landenu, og lætur þá villast á óveigenum, þar engenn vegur er.

25. So ad þeir án lioffens fálma í myrkrenu, og hann gerer þad ad þeir fara viller vega, sem adrer drydkiu menn.

## 13. Capitule.

1. Siá þú! þetta hefir mitt auga allt sed, og mitt eyra hefir þad heyrt, og eg hefi þad underftaded.

2. Hvad þer vited, þad veit eg og so, og eg em eigi minne háttar enn þer.

3. Þó vilida eg giarnann mæla vid hinn almáttuga, og eg villda giarnann ganga í rett vid Gud.

4. Þviad þer legged þad falsklega út, og erud aller ónyter læknatar.

5. Gæfe þad Gud, þer villdud þeigia, þá yrdud þer víser.

6. Heyred þó mitt straff, og hygged ad þvi málefne, sem eg tala um.

7. Viled þer forsvara Gud med raungu, og ad syna slægsmune fyrer hann?

8. Viled þer álíta hans personu? eda vjled þer keppa vegna Guds?

9. Mun ydur þad vel veita, nær ed hann skal dæma ydur? meined þer þad, ad þer fáed blekt hann, líka sem þá einn madur blecker annann mann?

10. Hann mun straffa ydur, ef ad þer hafed manngreinarálit heimuglega.

11. Mun hann eigi skelfa ydur, þá nær ed hann brunar þar framm? og hans skelfing mun falla yfer ydur?

12. Endurminningenn ydar mun samlíkiast vid øskuna, og ydrer brigger munu vera sem ønnur leyrrúst.

13. Þeiged fyrer mer, so eg gete talad, þad skal mig eigi bresta.

14. Hvar fyrer skal eg naga mitt holld med siálfs míns tønnum, eda leggia mína sál í mínar hendur?

15. Siá þú! hann mun þó deyda mig, og eg kann eigi ad bída. Þó vil eg straffa mína vegu fyrer hønum.

16. Hann mun og minn hiálpare vera, þviad engenn hræsnare kemur fyrer hann.

17. Heyred þer mitt mál, og mína útlegging fyrer ydrum eyrum

18. Siá þú, eg hefe allareidu

doms atkvæded á lagt, og veit ad eg verd rettlátur.

19. Hver er sá ed þreyta vill vid mig? enn nú hlyt eg ad þegia og fordiarfast.

20. Tvo hlute ger þú mer eigi, þá vil eg eigi dylia mig fyrer þer.

21. Lát þína hønd ver langt í burt frá mer, og þína skelfíng eigi skelfa mig.

22. Kalla þú til mín, eg vil svara þer: ellegar eg vil tala, svara þu mer.

23. Hversu margar eru mínar misgerder og synder? lát mig vita mínar illgerder og synder.

24. Hvar fyrer byrger þú þitt andlit, og helldur mig fyrer þinn óvin?

25. Villt þú vera so alvørunsamur vid eitt fliúgande lavfblad, og offsækia eitt þurt hálmstrá?

26. Þviad þú skrifar harmkvælingarnar á móte mer, og villt fyrerkoma mer so, fyrer synda saker minnar ungdoms æsku.

27. Þú hefir sett mínar fætur í stock, og giætt ad øllum mínum stigum, og hugad ad mínum fotsporum.

28. Eg sem þó forgeing líka sem annad úllded hræ, og so sem annad klæde, þad mølurenn uppetur.

## 14. Capitule.

1. Madurenn af kvinnunne fæddur lifer stutta stund, og er fullur ánaudar.

2. Hann uppvex sem annad blómstur, og fellur af, og í burtu flyr sem annar skugge, og er eigi í sama stad.

3. Og þú upplætur þín augu yfer einn þvílíkann, ad þú drager mig í dom fyrer þig?

4. Hver vill finna hreinann hiá þeim, þar engenn er hreinn?

5. Hann hefir sinn tilsettann tíma; hans mánada tala er hiá þer; þú hefir sett eitt takmark, yfer þad kemst hann eigi.

6. Vík þú frá honum, so ad hann meige hafa hvíld, þangad til ad hans tíme kemur, epter hverum hann bídur sem annar daglauna madur.

7. Eitt tre þad vonar, þó þad se upphøgged, ad þad endurnyest aptur, og þess kvister láta ei af.

8. Þó ad rótenn fyrnest í jørdunne, og þó ad stofnenn deye nidur í duptie,

9. Þá blomgast þad þó aptur, út af vatnsins lyckt, og vex upp, líka sem være þad plantad.

10. Enn hvar er madurenn, nær ed hann er daudur, og fallenn, og í burtu?

11. Líka sem vatned uppkleyppur af siónum, og so sem ønnur vatnsrás hver ed í burtu síast og uppþurkast.

12. Eins líka þá er madurenn, nær ed hann leggur sig, og mun ei standa upp, og ei vakna upp aptur, so lenge sem þad himenenn blífur, og uppvaknar eigi af sínum svefne.

13. Oh! ad þú hefder huled mig í helvíte, og skylt þangad til ad þín reide renade af, og sett mer eitt takmark til, ad þú villder minnast mín.

14. Þeinker þú, ad daudur madur mune lifna aptur? eg vænte daglegana, á medan eg stríde, þangad til ad mín umskipting kemur.

15. Ad þú villder kalla á mig, og eg mætte svara þer, og ad þú villder eigi í burtkasta verkenu þinna handa.

16. Þvi þu hefir allt tilreidu taled mína gaungu, enn eg villda giarnan, ad þú gæfer eigi gætur ad mínum syndum.

17. Þú hefir innsiglad mína yfertrodslu í einu bindene, og mínar synder tilsamans bunded.

18. Ef ad fialled hrapar nidur forgengur, og eitt hellubiarg kann flytiast í burt úr sínum stad.

19. Vatned þvær steinana í burt, og droparner skola jørdunne í burt, enn mannsins von er glatud.

20. Þviad þú kollkastar hønum med øllu, so ad hann fer hedann: Þú umbreiter hans veru, og lætur hann fara.

21. Eru hans børn í heidre, þad veit hann eigi, ellegar ad seu þau lítilmótleg, þá verdur hann þess ei áskinia.

22. So leinge sem hann bér kiøt á ser þá hlytur hann pínu ad líða, og so lenge sem þad hans sál er med hønum, þá hlytur hann sorg ad bera.

## 15. Capitule.

1. Þá svarade Eliphas af Theman, og sagde:

2. Skal einn vís madur tala so uppblásinn ord, og fylla sinn kvid so upp af fánytre rædu?

3. Þú straffar med ordum þeim sem eigi kvedur ad, og þín ordræda er eigi nytsamleg.

4. Þú lætur ottann fara, og talar forsmánarlega fyrer Gude.

5. Þviad þitt ránglæte kenner þínum munne so, og þú hefir kiørед þer eina hreckvísa tungu,

6. Þinn munnur mun fordæma þig enn eigi eg, þínar varer munu gefa þer svar.

7. Hvert ert þú sá madur sem fyrstur er fæddur? ert þú sá er getenn er ádur enn øll fiøllenn voru?

8. Hefir þú heyrt Guds heimuglegt rád? og er sialf spekenn minne háttar enn þú?

9. Hvad veitst þú þad ad, ver vitum eigi? hvad skilur þú þad, ad eigi se hiá oss?

10. Þar eru bæde gráhærder og gamler á medal vor, sem enn lengur hafa lifad enn þíner forfedur.

11. Skyllde Guds hugsvalan so allíted gillda fyrer þer? enn þú hefir enn einhverstadar nockud leynilegt hiá þer.

12. Hvad ásetur hiarta þitt ser? þvi ser þú so hofmódugt út?

13. Þvi setur þitt finne sig á móte Gude, ad þú lætur soddan ordbragd frammganga af þínum munne?

14. Hvad er madurenn þess, ad hann skyllde vera hreinn, og ad sá skyllde vera hreinn, og ad sá skyllde vera rettferdugur, sem er af kvinnunne fæddur?

15. Siá þú! ad þar er engenn óstraffanlegur á medal hans heilagra, og himnarner eru eigi hreiner fyrer hønum.

16. Hversu miklu sídur mun þá madurenn, sem so andstyggilegur er og fáfeingur, hver inndreckur rángslæted so sem annad vatn?

17. Eg vil syna þer þad, hlyd þú mer ad, og eg vil frammtelia þer þad, hvad eg hefi sed.

18. Hvad hiner vísu hafa sagt, og þad var eigi folged fyrer þeirra forfedrum.

19. Þeim, hverum alleina ad landed er gefed, so ad engenn framande má ganga þar í gegnum.

20. Hinn ógudlege bifast um alla sína daga, og tyrønnunum er þeirra áratala hulenn.

21. Hvad hann heyrer, þad skelfer hann, og enn þó ad þad se fridsamlegt, þá hræđist hann þó forbiarfarans komu.

22. Hann trúer þvi eigi, ad hann mune geta slúed ógæfuna, og ætíd vænter hann sverdsins.

23. Hann fer hingad og þangad epter braude, og hønum þycker jafnan, ad hans ógiæfustund se fyrer hendum.

24. Angist og ánaud skelfer hann, og nidurslær hønum, líka sem annar køngur med herlide.

25. Af þvi, ad hann hefir útrett sína hønd á móte þeim almáttuga.

26. Hann hleypur med høfdenu á móte hønum, og strider í gegn hønum, med hardsoſrudum hnacka.

27. Hann útbyr sig sem annar ystrumage, og gerer sig feitann og þyckann.

28. Enn hann mun búa í foreyddum stødum, sem engenn hús eru, helldur liggia í einnre hrúgu.

29. Hann mun og eigi audugur verda, og hans gots mun eigi stadfast vera, og hans lucka mun eigi útbreida sig í landenu.

30. Ogæfann mun eigi linna af hønum, logenn mun uppþurka hans kvistu, og uppsvelgia þá med anda síns munns.

31. Hann fær ei stadest, þvi hann er svikenn í sialfs síns hegóma, og hegómenn mun verda hans verdkaup.

32. Hann mun þá fá enda ed hønum verst gegner, og hans kvister munu eigi blómgast.

33. Hann mun burt plockadur verda sem annad vísed ber af víntrenu, og líka sem oliutre af ser feller sitt blómstur.

34. Þviad hræsnarans samansafnan mun einmana blífa, og elldurenn mun foreyda þeirra húsum sem mútur þiggia.

35. Hann geingur þungadur med ógæfuna, og fæder armædunа, og þeirra búkur ber svik.

## 16. Capitule.

1. Job svarade, og sagde:

2. Optsinnis hefi eg nú heyrt soddann. Allersaman erud þer leidenleger huggarar.

3. Skulu þau ónytiuord engann enda hafa? eda hvernenn dirfest þú so ad tala?

4. Eg kunne og einnenn so vel ad tala sem þer, villde Gud þad, ad ydrar sáler væru í stad minnar sálar. Eg villda þá og einnenn setia mig á móte ydur med ordum, og hrista so mitt høfud yfer ydur.

5. Eg vilda styrkia ydur med munnenum, og hugsvala med mínum vørum.

6. Enn þó ad eg tale, þá væger mer eigi þó mín pína, enn legge eg þar eigi til, þá fer hún þó eigi í burtu frá mer.

7. Enn nú gerer hann mig þreyttann, og nidurbrytur allt þad eg em.

8. Hann hefir gert mig hruckottann, og vitnad á móte mer.

9. Og minn mótmælare uppehefir sig í gegn mer, og veiter mer mótmæle: hans grimmd ísundurslítur, og hann sem mer er reidur bítur tønnum tilsamans yfer mer, minn mótstødu madur hvesser sín augu á mig.

10. Þeir hafa uppsperrt sína munna á móte mer, og slóu mig háduglega á mín kinnbein, og sleyttu so skape sínu tilsamans á mer.

11. Gud hann gaf mig under hinn rángláta, og let mig koma í ógudlegra hendur.

12. Eg var ríkur, enn hann hefir gert mig ad engu; hann tók um háls mer, og ísundur malde mig, og sette mig til eins máls-teikns.

13. Hann umkringde mig med sínum skeytum; hann hefir í sund-

ursnided mín nyru, og vægde eigi; hann hefir uthellt mínu galle á jördena.

14. Hann veitte mer hvert sár af ödru, og hann hlióp á mig sem annar kappe.

15. Eg saumade einn seck yfer mína hud, og lagde mitt horn í molldardupt.

16. Mitt andlit er bólged af gráte, og mínar augnabrár eru formyrkadar.

17. Einnenn þó þar se ecke ráng-læte í mínum höndum, og mín bæn er hrein.

18. Og þú jörd! hyl eigi mitt blód, og mitt kall mun engann stad finna.

19. Siá þú þad, minn vottur er á himne og sá er mig þecker, er í upphædunum.

20. Míner viner eru míner hád-ungarmenn, enn mitt auga þad tár feller til Guds.

21. Kynne madurenn ad þreyta lög vid Gud, sem annar mannsins nide vid sinn vin.

22. Enn þau akvednu árenn eru komenn, og eg fer í burt þann veg, hvern eg kem eigi aptur.

## 17. Capitule.

1. Minn ande er vanmegna, og míner dagar eru styttre ordner; gröfinn er þar.

2. Engenn er af mer tældur, þó hlióta mín augu þar fyrer í sorg um ad blífa.

3. Villder þú enn hafa borgun af mer? hver vill lofa fyrer mig?

4. Þú hefir faled skilningenn fyrer þeirra hiörtum, þar fyrer munt þú eigi upphefia þá.

5. Hann hrósar út af herfánge-nú, fyrer sínum vinum, enn augun hans barna munu vanmegnast.

6. Hann hefir sett mig til eins máltækis á medal folksins, og eg hlyt so ad verda ad undran a med-al þeirra.

7. Minn yferlitur er döckur ords-enn af hörmum, og aller míner lim-er eru sem annar skugge.

8. Hvad hina rettferdugu mun undra, og hiner meinlausu munu setia sig á móte hræsnarenum.

9. Hinn rettláte mun vidhallda sínum vege, og hann, sem hefir hreinferdugar hendur, mun blífa öflugur.

10. Nú vel, af þvi þá snúed yd-ur hingad, og komed, eg finn þó engann hyggenn á medal ydar.

11. Míner dagar eru umlidner, míner asetningar eru adskilder, þeir u násátu mitt hiarta.

12. Og hafa gert dagenn af nóttenne, og nóttena af deigenum.

13. Þó eg bidleike enn leingur vid, þá er þó helvíted mitt hús, og mín sæng er uppbuenn í myrkrenu.

14. Fuann kallade eg minn föd-ur, og madkana modur mína, og mína systur.

15. Epter hveru á eg ad bída? og hver hyrder um mína von?

16. Þad mun hedan under fara í helvíted, og mun medur mer ligg-gia í molldarduptenu.

## 18. Capitule.

1. Þá svarade Bildad af Suah, og sagde:

2. Hvenær vilied þer gera einn enda á rædunne? gæted þó ad, síd-an vilum ver tala.

3. Hvar fyrer verdum ver aktad-er sem annar fenadur, og erum so saurnger fyrer ydrum augum.

4. Hvert villt þú springa af illsk-unne? hugsar þú ad jördenn mune yfergefast fyrer þínar saker, og ad fiöllenn munu flytiast úr sínum stad?

5. Liósed hins ógudhræddа mun útslockna, og neistenn hans ellds mun eigi lysa.
6. Liósed mun formyrkast í hans tialldbúd, og hans liós mun útslockna yfer hønum.
7. Gróde hans peninga mun kleinn verda, og hans ásetningur mun bregdast hønum.
8. Þviad hann er med sínum fótum innfærdur í snøruna, og geingur í netenu.
9. Snarann mun ad hans hælum hallda, og þeir hinir þyrstu munu grípa hann.
10. Hans snara er løgd í jørdena, og hans gilldra á hans farveige.
11. Skyndeleg hrædsla mun skelfa hann allt umhverfis, so hann mun ei vita, hvad hann skal afráda.
12. Hungred mun vera hans eign, og ógæfann mun hønum reidubúenn vera, og loda vid hann.
13. Stirkur hans húdar mun eydast, og sá daudans høfdinge mun fortæra hans stirkleika.
14. Hans von mun upprætt verda af hans tialldbúd, og þeir munu í burt drífa hann til þess konungsins skelfíngarennar?
15. Í hans hybylum mun eigi neitt epter vera, og út yfer hans tialldbúd mun brennesteine dreift verda.
16. Hans rætur munu upp þorna nedan til, og ofan til þá mun hans haustvinna í burtskerast.
17. Hans minning mun forganga í landenu, hann mun og eigi neitt nafn hafa á strætunum.
18. Hann mun burt rekenn verda frá liósenu í myrkred, og útskufadur af jørdunne.
19. Han mun hverke hafa børn ne karna børn á medal síns folks, og þar mun engenn epter verda í hans heimele.
20. Þeir ed epter hann koma, þeim mun ógna hans dagur, og yfer þá, sem fyrer hønum eru, mun koma einn otte.
21. Þetta er þad heimeled hins órettferduga, og þetta er stadur þess, sem eigi skeyter um Gud.

## 19. Capitule.

1. Job svarade, og sagde:
2. Þvi þvínged þer þó so mína sálu, og kveled mig med ordum?
3. Þer hafed nú tíusinum hædt mig, og þer skammest ydar eigi, ad þer so umkring reked mig.
4. Fare eg villt, þá villest eg mer.
5. Enn þer upphefed ydur sannlega á móte mer, og strafed mig mer til hádungar.
6. Hygged ad einu, ad Gud hann gerer mer órett, og umvefur mig med sínne veidesnøru.
7. Siá þú! þó ad eg hrópade fyrer ófríkes saker, þá yrda eg þó eigi bænheyrdur: eg kalla, og þar er engenn rettur.
8. Hann hefir gyrdt fyrer mína vegu, ad eg kann eigi yfer ad komast, og hann hefir sett myrkred á mína stigu,
9. Hann hefir fært mig úr mínum heidre, og kórónuna tók hann af mínu høfde.
10. Hann sundurlamde mig allt umhverfes, og let mig fara, og hann uppriste minne von sem ødru tre.
11. Hans reide er grimmleg yfer mer, og hann helldur mig fyrer sinn óvin.
12. Hans strídsmenn komu undir eins, og gerdu ser stein-gøtu yfer um mig, og settu sínar herbúder kring um mína tialldbúd.
13. Hann skilde mína brædur

langt frá mer, og míner kunningar eru ordner mer ókenndar.

14. Míner náungar eru víkner í burtu, og míner viner þeir for gleymdu mer.

15. Mitt heimelis fólk og mínar þernur hallda mig sem annann framanda mann, eg em ordenn ókenndur fyrer þeirra augum.

16. Eg kalla á minn þiónustu mann, og hann svarar mer engu, eg hlaut ad grátbæna hann med mínum eigenn munne.

17. Mín húsfreya hún letst vera ókennd, dá eg kallade hana, og eg hlyt ad bidia þau börnenn, sem af mínum síðis kvide eru komenn.

18. Og þau ungu börnenn skeyta eigi um mig: nær ad eg set mig á móte þeim, þá illyrda þau mig.

19. Aller míner fulltruar hølfdu viðbióð vid mer, og þá hvora eg elskade, þeir hafa snúed ser á móte mer.

20. Mín bein hanga vid mína húd og holld, og eg fæ eigi huled mínar tennur med hudenne.

21. Aumked ydur yfer mig! aumked ydur yfer mig! viner míner! þviad Guds hønd hefir snorted mig.

22. Þvi ofsæked þer mig, so vel sem Gud. og kunned eigi ad sediast af mínu kiøte.

23. Oho! eg æske þad mitt mál mætte vera uppskrifad: oho! ad þad kynne ad setiast í eina bók,

24. Med einum járnstíl á bly, og úthøggast á stein til eylífrar minningar.

25. Enn eg veit ad minn endurlausnare lifer, og þad hann mun her epter uppvekia mig af jørdunne.

26. Og eg mun sídar meir umgefast med þessu mínu hørunde, og eg mun siá Gud í mínu hollde.

27. Hann hinn sama mun eg siá fyrer mer, og mín augu munu lyta hann, og eigi einn annarlegur. Mín nyru eru fortærd í mínu skaute.

28. Þviad þer seiged: hvernenn hellst vilium ver ofsækia hann, og finna honum sok?

29. Vered hræddar fyrer sverdenu, þviad reidenn er reidenn yfer misgerningenum, so ad þer meiged vita, ad þar se dómurenn til.

## 20. Capitule.

1. Þá svarade Zophar af Naema, og sagde:

2. Eg hlyt þar til ad svara, og kann eigi ad bída vid.

3. So vil eg og giarnan heyra hver mig skal straffa, og seigia þar á mót, þviad ande míns skilnings skal svara fyrer mig.

4. Veist þú eigi, ad þad hefir so alla tima til geinged, so leinge sem menn hafa vered á jørdunne.

5. Þad frægdenn hins ógudlega stendur eigi lengi, og þad hræsnarans gladlæte varer eitt augabragd.

6. Og þó ad hans hæd take allt upp í himenenn, og hans høfud þad kæme vid skyenn,

7. Þá fyrerferst hann þó ad sídurstu sem annar þreckur, so ad þeir, af hverum hann var áliteun, munu seigia: hvar er hann?

8. Líka sem annar draumur í burt lídur, so skal hann og eigi fundenn verda; og líka sem ønnur sión á náttar tíma í burthverfur.

9. Þad auga sem sed hefir hann, þad skal eigi siá hann leingur, og hans stadur skal eigi líta hann leingur.

10. Hans børn munu fara yfer og ølmusu þiggia, og hans hønd mun gefa hønum armædu til þiónustu launa.

11. Hans bein munu gialldа hans heimulegra synda, og þau muna í jørdena leggia sig med hønum.

12. Enn þó ad hønum smackest vel hans ilska í sínum munne, þá mun hønum þó í sinne tungu brestur á henne verda.

13. Hún mun avtur halldast og hønum eigi leysast, og mun hønum vørnud verda í hans hálse.

14. Hans matur mun umsnúast, hid innra í kvidnum, í nødru gall.

15. Þad gots hann hefir í sig gleypt, þvi mun hann út spya avtur, og Gud mun utsteypta þad úr hans kvide.

16. Hann mun siúga nødrunnar gall, og høggormsins tunga mun drepa hann.

17. Hann mun eigi siá þau fliótenn ne þá vatnslækina, sem frammflióta med smiøre og hunánge.

18. Hann mun erfida og nióta þess eigi, og adrer skulu eignast hans audæfe, so ad hann gledest eigi þar vid.

19. Þviad hann nidurþrickte og yfergaf hinn fátæka, hann dró þau hús under sig, sem hann bygde eigi.

20. Þviad hans búkur kunne eigi sadður ad verda, hann mun eigi umflúed geta fyrer sinna kostulegra audæfa saker.

21. Þar mun og ecke epter verda af hans mat, þar fyrer mun hans kræsiligur lifnadur engann stad hafa.

22. Enn þó hann hafe yfergnæfanlegar nægter, þá mun þó hønum ersidt veita: alshåttud armædamun yfer hann koma.

23. Hans búkur mun eitt sinn fullur verda, og hann mun senda sína hefndarreide yfer hann: hann mun láta rigna sinn ofrid yfer hann.

24. Fyrer járnharneskiu mun hann flya, og sá stálbogenn mun ellta hann á flótta.

25. Þar mun eitt naked sverd ganga út í gegnum hann, og sverdsins leiftran, sem hønum mun beiskleg verda, mun med skelfingu yfer hann koma.

26. Þar er eigi neitt þad myrkur sem hønum kunne ad skyla, sá elldur sem þar er eigi upp kveiktur mun foreyda hønum, og þad mun þeim illa vegna sem epter ordner eru í hans heimele.

27. Himenennn mun openbera hans misgerninga, og jørdenn mun uppsetia sig ímóte hønum.

28. Hans korn mun í burt flytiast af hans heimele, og útdreifast á hans reidennar deige.

29. Þetta eru launenn eins ógudrækins manns hiá Gude, og arftakann hans orda hiá Gude.

## 21. Capitule.

1. Job svarade, og sagde:

2. Heyred þá mínu mále, og láted rádleggia ydur.

3. Umlíded mig, þó ad eg meige og so tala, og dáred mig svo sídan.

4. Á eg vid einn mann, so ad mitt ged meige og eigi þar af sturlast?

5. Snúed ydur hingad til mín, og munud þer dапrast, og hallda ydar hendum fyrer ydar munn.

6. Nær eg minnest á þad, hrædest eg, og þar kemur skiálfte á mitt hollð.

7. Hvar fyrer lifa hiner ógudrædðu, verda gamler, og eignast so mikel audæfe?

8. Þeirra sæde er andvaralaust í kringum þá, og þeirra afkvæme er hiá þeim.

9. Þeirra hús hefir frid fyrer óttanum, og Guds hirtingar vøndur er ei yfer þeim.

10. Hans naut er frótt og feller þad ecke nidur, hans kyr hún kelfer, og misser eigi síns burdar.

11. Þeirra ungu børn ganga út sem ønnur hiørd, og þeirra smábørn støcka upp og leika ser.

12. Þeir skemta ser med bumbum og høtpum, og gledia sig med pípum.

13. Þeir verda gamler í sællífenu, skelfast varla eitt augabragd fyrer helvíte.

14. Þeir sem þó seigia so til Guds: vík þú burt frá oss, ver vilum eigi vita af þínum vegum.

15. Hver er sá hinn almáttuge, þad ver villdum þióna hønum? eda hveria forbetrun høfum ver þar út af, þó ad ver ákøllum hann.

16. Enn siá þú! þeirra gots stendur eigi í þeirra høndum, þar fyrer skal sinned hins ógudlega vera langt frá mer.

17. O! hvernenn mun liós þeirra ógudlegu útsløckast, og þeirra ógæfa yfer þá koma: hann mun hiartans angre útskipta í sinne reide.

18. Þeir munu verda sem annad grasstrá fyrer vinde, og so sem annad jarbar dupt, þvi ed storvidred í burtu feyker.

19. Gud helldur hans ólucku uppá hans børn, þá nær hann vill endurgiallda hønum þad, þá munu menn fá ad vita þad.

20. Hans augu munu siá sína fordiarfan, og ut af grimmdarreidenne hins almáttuga mun hann drecka.

21. Þvi hver mun hafa góda þocknan til hans heimelis epter hann? og tálann hans mánudanna mun naumlega hálfnud verda.

22. Hver er sá, sem vill læra Gud? hann hver ed og dæmer þá enu háu?

23. Þesse í burtu deyr kaskur og heilbrigdur, í øllum ríkdome, og hefir fulla nægd.

24. Hans miolkurkerølld eru full af miolk, og hans bein þau sitna af merg.

25. Enn hinn annar deyr í burt med forgande sálu, og hefir alldrei med glede mat eted.

26. Og þeir liggia líka hver med ødrum tilsamans í jørdunne, og madkarner hylia þá.

27. Siá þú! eg þecke ydrar hugsaner vel, og ydart ránglegt uppsátut á móte mer.

28. Þviad þer seiged: hvar er høfdingians hús? og hvar er sú tialldbúdenn, hvar þeir ógudlegu biuggu?

29. Þer seiged þar út af, líka sem annad alþydu folk, og hygged eigi ad þvi, hvad hinna athæfe merker.

30. Þvíad sá hinn illgiarne vardveitest til fordiørfunar dagsins, og hann varer til grimmdarennar dags.

31. Hver vill seigia, hvad hann forþenar, nær ed þad verdur utann til álited? hver vill launa hønum þad hann gerer?

32. Enn hann mun burt sviptast til grafarennar, og blífa þar í hiá fiøldanum.

33. Saurbleytann lækiarins þocknast hønum vel, og aller menn munu hønum epterfylgia, og þeir eru óteliánleger sem fyrer hønum voru.

34. Hvernenn hugsvaled þer so mer til forgefens? og ydar andsvør þau finnast órett.

## 22. Capitule.

1. Þá svarade Eliphas af Theman, og sagde:

2. Hvad þarf Gud hins øfluga vid? eda hvar til er hønum sá rádkloke nytsamlegur?

3. Hvert þeinker þú, ad þad þocknest so vel hinum almáttuga, ad þú gerer þig so rettferdugann? eda hvad stodar þad hønum, þó ad þú hallder þína vegu so lytalausa?

4. Þeinker þú þad, ad hann mune ei þora ad straffa þig, og ganga í dom vid þig?

5. J! þín illska er ofmikel, og þar er engenn ende á þínum misgerningum.

6. Þú hefir teked pant af þínum brodur án orsakar, og flett þina nøktu klædum.

7. Þu hefir eigi gefed módum vatn ad drecka, og hefir neitad þíns brauds þeim hungrudu.

8. Þú hefir gert ofríke í landenu, og practuglega þar inne seted.

9. Eckiurnar hefir þú med tómum høndum frá þer láted fara, og armleggena þeirra fodurlausu í sundurbroted.

10. Þar fyrer ert þú umvafenn med snørum, og hrædslann hefir skyndelega skelft þig.

11. Skyllder þú þá eigi siá myrk red, og skyllde eigi vatnsflóded hylia þig?

12. Siá þú! Gud er hátt þar uppyfer í himnenum, og ser þær stiørnurnar þar upp í hædenne.

13. Og þú seiger: hvad veit Gud? skyllde hann kunna ad dæma þar um, sem í myrkrunum er?

14. Skyenn þau skyggia á hann, og hann ser eigi, og hann gengur í umgange himnanna.

15. Villt þú hyggia ad hlaupe veralldarennar, á hveru þad hiner ránglátu hafa geinged?

16. Þeir ed gløtudust ádur enn tímenn kom, og vatned hefir í burt þveged þeirra grundvøll.

17. Þeir sem søgdu til Guds: far þú frá oss. Hvad skyllde sá almáttuge kunna ad gera þeim?

18. Þar ed hann uppfyller þó þeirra hus med audæfum, enn meiningenn hinna óguðlegu se langt frá mer.

19. Hiner rettvísu mundu siá þad og gledias vid, og sá hinn saklause mun hæda ad þeim.

20. Hvad gillder, ad þeirra umsyslan mun í burt hverfa, og elldurenn mun foreyda þeirra epterleifum.

21. Þar fyrer forlíktu þig nú vid hann, og haf frid; þar af muntu fá miked godt.

22. Heyr þú løgmáled af hans munne, og høndla hans rædu í þínu hiarta.

23. Ef þú snyr þer til hins almáttuga, þá munt þú uppbygdur verda, og láta ránglæted fiarlægt verda þinne tialldbud.

24. So muntu gefa gull fyrer jørd, og gullæke fyrer griotsteina.

25. Og sá hinn almáttuge mun vera þitt gull, og þú munt fá stóra hrúgu silfurs.

26. Þá munt þú þína lysting hafa til hins almáttuga, og upphefia þitt auglit til Guds.

27. Þá munt þú og bidia hann, og mun hann bænheyra þig, og þú skallt enda þín heit.

28. Hvad sem þú ásetur þer, þad mun hann þer vel luckast lata, og liósed mun skína á þínum veige.

29. Þvi þá sem sig lítelæcka þá upphefur hann, og hver hann nidur slær sínum augum, þann mun Gud frelsa.

30. Og sá hinn saklause mun frelsadur verda, og hann mun frels-

ast fyrer hreinferdis saker hans handa.

## 23. Capitule.

1. Þá svarade Job, og sagde:

2. Mín ræda blífur enn hriggeleg, minn máttur er veikur yfer minne andvarpan.

3. O! eg villdi ad eg vissi hvernenn eg gæte funded hann, og eg mætte koma til hans stóls.

4. Og setia sökena í dóm fyrer hann, og uppfylla minn munn til ásökunar.

5. Og reyna þau ordenn sem hann svarar mer, og skilia þad, hvad hann mun seigia mer.

6. Vill hann ganga med stórre magt í dóm vid mig? hegde hann ser ei so vid mig.

7. Helldur legge hann þad jafnadarsamlega fyrer mig, þá mun eg vel vinna mitt mál.

8. Enn gange eg nú rett áframmm, þá er hann þar eigi; gange eg tilbaka, þá uppspyr eg hann eigi.

9. Se hann til vinstre hlidar, þá høndla eg hann eigi; skyle hann ser til hægre hlidar, þá se eg hann eigi.

10. Enn minn veg þecker hann vel, hann reyner mig, og mun eg þá fundenn verda, líka sem annad gull.

11. Þvíad eg set minn fót uppá hans veg, og eg vardveiti hans vegu, og vík þar eigi út af.

12. Og eg vík eigi af bodordum hans vara, og eg vardveite ordræduna hans munns meir enn eg em skylldugur til.

13. Hann er einn, hver vill svara hønum? hann gerer þad ílka sem hann vill.

14. Og þó hann bitali mer þad sem eg hefe forþent, þá er þad enn meira epter.

15. Þar fyrer þá skelfest eg fyrer hønum, og nær ad eg formerke þad, þá hrædest eg fyrer hønum.

16. Gud hann hefir linad mitt hiarta, og sá hinn almáttuge hefir skelft mig.

17. Af þvi ad myrkred gerer þar engann enda á vid mig, og sú dimma þokann vill eigi skylast fyrer mer.

## 24. Capitule.

1. Hvar fyrer mun tímenn eigi hulenn vera fyrer þeim hinnum almáttuga? og þeir ed hann þeckia siá eigi hans daga.

2. Þeir reka landamerkenn aptur á bak, þeir ræna hiørdenne, og fæda hana.

3. Þeir burt reka asnana hinna fødurlausu, og taka ecknanna nautfenad í pant.

4. Hiner fátæku hlióta ad ryma fyrer þeim, og hiner þurftugu í landenu hlióta ad geyma sig.

5. Siá þú, villudyrenn í eydemørkenne ganga út, sem þau eru vøn, snemma til ad ræna, ad þau tilbúe fædslur fyrer ungana.

6. Þeir uppvinna þann akurenn allt þad hann á ser ber, og plocka þann víngardenn sem þeir hallda med raungu.

7. Þeir láta hina fatlausu liggia, og veita þeim eigi neitt skiól í kuldanum, í frá þeim er þeir tóku þó klædenn.

8. So ad þeir hlióta sig ad hallda til klettanna, nær ed þad hretvidred af fiøllunum gys yfer þá, af þvi ad þeir hafa ecke neitt annad hæle.

9. Þeir í burttaka barned af brióstunum, og gera þad fødurlaust, og þeir gera fólked fátækt med sínum pøntum.

10. Hina nøktu láta þeir klæd-

láusa ganga, og þeir í burt taka bindenenn frá þeim hungrudu.

11. Þeir þvínga þá til ad gera vidsmiør á siálfs þeirra kvernum, og ad troda víned í siálfs þeirra vínþrúgum, og láta þá þó lída þorsta.

12. Þeir láta fólked í stødunum andvarpa, og þad sáler hinna ihel slegnu þær kalla, og Gud hann stepper þeim eigi.

13. Þar fyrer eru þeir affallner frá liosinu, og þeckia eigi hans vegu, og snúa ser eigi aptur á hans vegu.

14. Mordingenn stendur upp þá ed dagar, og myrder hinn fátæka og hinn þurftuga, enn á nóttenne er hann sem annar þiófur.

15. Augad hórkarlsins gæter ad myrkrenu, og seiger so: ecke auga þad ser mig, og þeinker so ad hann se hulenn.

16. Í myrkrenu brytst hann inn í húsed, enn á dagenn sela þeir sig tilsamans, og forðast liosed.

17. Þvi nær morgunenn kemur þeim, þá er hann þeim líka sem annad myrkur, þviad hann formerker skelfingena myrkursins.

18. Hann fer so leitelega í burt hedann sem á ødru vatne, hans gots verdur líted í landenu, og hann uppbygger eigi sinn víngard.

19. Helvíted svipter þeim í burt sem syndgast, líka so sem hitenn, og þurkurenn, sem burt þurkar snióvatned.

20. Miskunsemenn mun forgleyma hønum, hans lysting mun mødkum vella, hans mun og eigi meir geted verda, hann mun og í sundurbrotenn verda, sem annar fuenn fauskur.

21. Hann hefir gert illt þeirre hinne einmana sem óbyria er, og ecki unum gerde hann eigi neitt til góda.

22. Hina volldugu lagde hann under sig med sinne magt, nær ed hann stendur, þá mun hann þó eigi vís verda um sitt líf.

23. Hann gerer siálfum ser uggaleyse, hans augu siá þó samt á þeirra gerning,

24. Þeir eru um litla stund upphafner, og verda ad engu, og nidurþrickter og eydelagder med øllu, og líka sem þad fyrsta blómstur á axenu, þá munu þeir afslegner verda.

25. Enn er þad eigi so? nú vel, hver vill straffa mig um lygemælge, og sanna þad, ad mitt mál se ecke.

## 25. Capitule.

1. Þá svarade Bildad af Suah, og sagde:

2. Er eigi herradæmed og ógnenn hiá hønum, sem gerer fridenn á medal sinna hinna hæstu?

3. Hver fær taled hans strídsmenn? og yfer hverium þá uppgengur eigi hans lios?

4. Og hvernenn kann madurenn rettlátur ad vera fyrer Gude? og hvernenn kann eitt kvinnunar barn hreint ad vera?

5. Siá þú! tungled skín enn nú eigi, og stiørnurnar eru enn eigi klárar fyrer hans augum,

6. Hversu miklu midur mun þá madurenn, sá madkur, og eitt mannsins barn, sá ormur.

## 26. Capitule.

1. Job svarade og sagde:

2. Med hverium helldur þú? med þeim sem hefir enga magt? hiálpar þú þeim sem engann styrkleik hefir í handleggiunum?

3. Hverum gefir þú rád? þeim

sem engann hefir vísdómenn? og undervísar þad þeim volldugа, hvernenn ad hann skule þad fullkomna?

4. Fyrer hverum talar þú? og fyrer hverum gengur andardráttúrenn út af þer?

5. Koppunum under vatnenu er þungt, og þeim sem búa hiá þeim.

6. Helvite þad er opnad fyrer hønum, og fordiørfunenn hefir enga skyling.

7. Hann útbreider nordred uppá eigi neitt, og uppheinger jørdena á eigi neitt.

8. Hann safnar vatnenu saman í sín ský, og skyenn rifna eigi þar under.

9. Hann upphelldur sínum stól og útbreider sín ský þar yfer.

10. Eitt takmark hefir hann í kringum vatned sett, þangad til ad lióssed og myrkred forganga.

11. Stólpar himensins skiálfa og hrædast hans avitan.

12. Fyrer hans mátt uppæsest siórenn skyndelega, og fyrer hans skilning upphefir sig hafsins hæd.

13. Á himnenum verdur þad fagurt fyrer hans vinde, og hønd hans tilreider langa høggorma.

14. Siá þú! so geingur hans gerningur til, enn þar út af høsum vier fornumed eitt líted ord, enn hver kann ad skilia reidaþrumur hans styrkleika?

## 27. Capitule.

1. Og Job talade enn framar, og hóf upp sína ordskvidu, og sagde:

2. So sannarlega sem Gud hann lifer, hver ed minn rett lætur eigi framm ganga, og sá hinn almáttuge, hver ed hrigger mína sálu,

3. So lenge sem þad minn ande er í mer, og þad sá andardráttur enn af Gude er í mínum nøsum,

4. Þá skulu mínar varer eigi tala órettinde, og mín tunga skal eigi svikræde mæla.

5. Þad se langt frá mer, ad eg gefe ydur rett, eg vil og eigi burt víkia frá mínu sakleyse, fyrr enn þad mín æfelok koma.

6. Eg læt eigi af þvi rettlæte sem eg hefe; mín samvitska bítur mig eigi, fyrer alls míns lífnadar saker.

7. Enn minn óvinur mun ógudlegur finnast, og hann ránglátur, sem setur sig upp á móte mer.

8. Þvi hvad er vonenn hræsnarans, þad hann er so fegiarn, enn Gud hann í burt svipter þó hans sálu?

9. Meinker þú, ad Gud mune heyra hans kall, nær ed angist kemur yfer hann?

10. Hvernenn kann hann ad hafa lyst til hins almáttuga, og nockurn tíma ad ákalla Gud?

11. Eg vil læra ydur af Guds hende, og þad hvad ed duger í hiá þeim almáttuga, þad vil eg eigi dylia.

12. Siá! þer halldeð ydur alla fyrer hyggna, enn hvar fyrer þá framm seiged þer soddan ónytsamlega hlute?

13. Þad hid sama er verdkaupsed eins ógudlegs manns hiá Gude, og þar er arftakann þeirra víkinganna, hvera þeir skulu fá af hinum almáttuga.

14. Þó hann hafe mørg børn, þá munu þau fyrer sverde deya, og hans epterkomendur munu eigi fa gnoglega fædslu.

15. Hans hiner epterblifnu munu greftrast í daudanum, og hans ekkiur munu eigi syrgia.

16. Þó hann samanrake so pen-

ingunum sem jørdu, og klædunum sem leir,

17. Þá mun hann ad sønnu vel tilbúa þau, enn sá hinn rettláte mun iklæda sig þeim, og sá hinn saklause mun útskipta þeim pen ingunum.

18. Hann uppbygger sitt hús sem ønnur gaunguroſa, og —ka sem einn gætsluvørdur gerer ser eitt forskygne.

19. Nær hinn ríke leggur sig út af, þá mun hann þvi eigi med ser í burt sópa, hann mun upplúka sínum augum, og þar mun eigi par vera.

20. Hrædsla mun yfer hann falla sem annad vatn, stormvidred á náttartímanum mun í burt svipta honum.

21. Sá austanvindurenn mun í burtu flytia hann, so hann fare hedan, og hrídvidred mun hrinda hønum úr sínum stad.

22. Hann mun leida soddan yfer hann, og vægia hønum eigi, aller hluter munu burtflya úr hans høndum.

23. Yfer hønum munu þeir klappa høndum tilsamans, og blístra yfer hønum þar ed hann var.

## 28. Capitule.

1. Silfred þad hefir sína uppgaungu, og gulled sinn stad þar þad smellteft.

2. Járned þad tekst úr jørdunne, og út af steinunum smellteft koparenn.

3. Myrkred fær eitthvert sinn einn enda, og einhver finnur med þad sídarsta skufssteinenn sem diupt er nidur følgenn.

4. Þar útsprettur soddann einn lækur, ad þeir sem þar búa í nánd, þeir missa þar veigenn, og hann sígnar sídan nidur aptur, og rennur langt í burt frá fólkenu.

5. Þar først og elldur nedan undan jørdunne, þar ed fædann vex upp yfer.

6. Þar finnst og Saphirus í sumum hverum stødum, og þær jardartorfur sem gull er út í.

7. Þann farveigenn, hvern enganu fugl hefir kannad, og einskis gamms auga hefir sed.

8. Þau stolltu børnenn hafa þar eigi uppá treded, og eigi neitt Leon hefir þar yfer genged.

9. Þar leggast og einnenn hendur á þau steinbiørgenn, og fiøllenn verda umgrafenn.

10. Menn láta útrenna lækena af fiøllunum, og augad ser þad allt hvad kostulegt er.

11. Menn afstífla straumenn vatnsins, og láta þad sem þar er folged inne, koma í liós.

12. Enn hvar vill vísdomurenn finnast? og hvar er sá stadurenn skilningsins?

13. Engenn veit hvar hann liggur, og ei verdur hann fundenn í landenu þeirra lifendu.

14. Underdiúped þad seiger: eigi er hann í mer; og siórenn hann seiger: eigi er hann hiá mer.

15. Þar verdur eigi gefed gull fyrer hann, eigi helldur silfur útveiged ad bítala hann med.

16. Ophirs gull og þeir dyrendis Onych og Saphir gillda eigi til líka vid hann.

17. Gull og Adamas kann eigi ad líkiast vid hann, og eigi først hann ad vedsla fyrer gull clenodia.

18. Ramoth og Gabis aktast eigi, vísdomurenn er hærra vigtande enn perlur.

19. Sá Topasius af Morlande virdest eigi til líka vid hann, og

þad ſkíraſta gull gillder eigi jafnt vid hann.

20. Hvadan kemur víſdomurenn þá? hvar er ſkilnings ſtadurenn.

21. Hann er fólgenn fyrer augum allra þeirra ed lifa, hann er og einnenn fólgenn fyrer fuglunum under himnenum.

22. Fyrerdæmingenn og daud enn þau ſegia: ver høfum heyrt hans rikte med vorum eyrum.

23. Gud hann veit veigenn þangad, og hann þecker hans ſtad.

24. Þviad hann ſer jardarennar enda, og hann ſer allt þad ſem under himnenum er.

25. Þar hann gerde vindenum ſinn vigtarþunga, og ſette vatnenu ſinn viſſann mæler.

26. Þá hann gerde regnenu ſitt takmark, og þeim elldenum og reidarþrumunum veigenn,

27. Þá ſá hann hann, og framm talde hann, hann tilreidde hann, og fann hann.

28. Og hann ſagde til mannsins: ſiá þu! ótte Drottins, þad er víſdomurenn, og ad fordaſt hid venda, þad er ſkilningurenn.

## 29. Capitule.

1. Job hóf enn upp aptur ſína epterlíking, og ſagde:

2. Eg villdi ad eg være líka ſem eg var á þeim fyrrum mánudum, á þeim døgum, þá Gud hann vardveitte mig.

3. Í þeirri tíd, ad hans lióß ſkein yfer mínu høfde, og eg geck vid hans lióß í mirkrenu.

4. So ſem þá eg var í tíd míns ungdoms, þá ed Guds leyndur dómur var yfer mínu heimele.

5. Á þeirri tíd hinn almáttuge var enn med mer, og mín børn í kringum mig.

6. Þá ed eg þvoda mín fótſpor í ſmiøre, og ſteinbiørgenn úthelltu mer vidſmiørs lækium.

7. Þá ed eg geck til borgarhlidanna í ſtadnum, og let tilbúa minn ſtól á ſtrætum.

8. Þá hiner ungu menn ſáu mig og þeir føldu ſig, og þá hiner gomlu ſtódu upp fyrer mer.

9. Þá ed høfdingiarner gáfu upp ad tala, og helldu ſínum høndum fyrer ſinn mun.

10. Þá ed rauſtenn høfdingianna byrgde ſig, og tungurnar á þeim loddu vid þeirra góma.

11. Þviad hvers þeß eyra, ſem mig heyrde, þad príſade mig ſællann, og hvers auga, ſem mig ſá, þad bælde mer.

12. Þviad eg frelſade hinn fátæka þá ed hann kveinade, og þann føðurlauſa ſem engann hiálparmann hafde.

13. Hans bleſſan, ſem fordiarfaſt átte, hún kom yfer mig, og eg gladde hiarta ekiunnar.

14. Rettvíſenn var minn klædnadur, hverre eg iklædde mig ſem ødrum kyrtle, og minn domur var mín vellis húfa.

15. Augad hins ſiónlauſa var eg, og fæturnar hins fótlama.

16. Eg var fader hins fátæka, og hvert þad málefne, ſem eg viſſa ei, þad útſpurda eg.

17. Jaxlana hins rángláta í ſundur braut eg, og ſleit þad ránſed úr hans tønnum.

18. Eg þeinkte ſo: eg vil deya í mínu hreidre, og gera mína daga ſo marga ſem ſand.

19. Mitt ſæde þad rann upp vid vatned, og náttdøggenn var yfer mínum kornſkurde.

20. Mín dyrd ányade ſig alltíd fyrer mer, og minn boge batnade í minne hende.

21. Þeir hlyddu á mín ord og þøgdu, og hugdu aller ad minne rádleggingu.

22. Epter mína ordrædu þá talado eingenn fleyra, og mín mælſka hún draup á þá.

23. Þeir væntu epter mer sem annare døggu, og opnum helldu þeir sínum munne líka sem epter ødru kvølldregne.

24. Nær ad eg broſte med þeim, þá dyrfduſt þeir þar eigi vid, og þad liosed míns auglites gerde mig eigi minne háttar.

25. Þá eg villde fara til þeirra syſlunar, þá vard eg ad ſitia hinn effſte, og eg bió á mille ſtridsmannanna sem einn kongur, þá ed eg hugſvalade þeim, sem harmþrúngner vorn.

## 30. Capitule.

1. Enn nú hlæa þeir ad mer sem yngre eru enn eg, hverra fedur eg hefde ei virdt ad ſetia hiá hundum minnar hiardar.

2. Hverra formegan eg hellt einſkis nyta, þeir ed ei gátu komiſt til fulls alldurs.

3. Þeir sem af hungre og veſølld einmana flydu á eydemørkena, og voru nú nylega fordiarfader og veſæler vordner.

4. Þeir ed upplockudu þad netlugrafed hiá vidar-runnenum, og sú rótenn einebertresins var þeirra matur.

5. Og nær ed þeir uppricktu þeim, þá hlóckudu þeir yfer þvi, líka sem þiófur.

6. Þeir biuggu hiá hrædelegum lækium, í þeim jardarholunum, og biargſkorunum.

7. A mille ſkógar-runnanna køllu du þeir, og under þyrſlunum samansøfnuduſt þeir.

8. Børnenn þeirra hinna fávíſu og fyrerlitnu manna, þeir sem minnſtu háttar voru í landenu.

9. Nú em eg ordenn þeirra hlióðfæris leikur, og hlyt ad vera þeirra fréſaga.

10. Þeir hafa andſtyggd á mer, og hafa ſig langt frá mer, og þeir hirda eigi ſo þeir hræke fyrer minne áſionu.

11. Þeir hafa fráſpennt mína sálu og gert mig ad engu, og ſvipt beiſlenu af mínu.

12. Þeir ſettu ſig á móte mer vid þann hægra veigenn, þar sem eg blómgadeſt, og í burtu ſkúfudu mínum fæte, og gerdu ſer veg yfer um mig mer til fordiørfunar.

12. Þeir nidur brutu mína vegu, og þad var þeim ſo audvelldt ad gera mer ſkada, ſo þeir þurftu þar engrar hiálpar vid.

14. Þeir eru innkomner líka sem í gegnum eitt vídt og miked vindauga, og eru her innfallner fylkingarlauſt.

15. Skelfingenn ſnere ſer á móte mer, og offókte mína dyrd sem annad ſterkvidre, og mitt gæfulán líka sem annad ótfluga ſky.

16. Enn nú úthellter ſer mín sála yfer mig, og sá útlegdar tímenn hefir høndlad mig.

17. A nóttenne ſtíngaſt mín bein í gegnum alla vegana, og þeir sem mig jaga leggia ſig eigi ad sofa.

18. Fyrer margfalldleik kraptarins vero eg ødruvís og ødruvís klæddur, og þeir ſpenntu því ad mer, líka sem hálſmálenu míns kyrtels.

19. Þeir hafa troded mig nidur í þreckenn, og aktad mig sem dupt og øſku.

20. Hrópa eg til þín, þá ſvarar þú mer eigi; geing eg framm, þá ſkeyter þú ecke um mig.

21. Þú ert mer nú umsnúenn til eins sem er hrædilegur, og aud sýner þína reide á mer med þeim styrkleiknum handar þinnar.

22. Þú lypter mer upp, og lætur mig fara á vindenum, og sundur smellter mig kræptuglega.

23. Þvi eg veit, ad þú munt ofurselja mig daudanum, þar er þad tilteinkada húsed allra lifendra.

24. Þó mun hann eigi útretta sína hönd, til beina hussens, og þeir munu eigi hrópa fyrer hans fordiarfan.

25. Eg gret á þeim hardinda tímanum, og mín sál keunde í brióste um hinn fátæka.

26. Eg vænte hins góda, og kemur þad hid vonda, eg vonade epter lióssenu, enn kemur myrkred.

27. Mín innisle sióda og láta ei af, hörmungartímenn er yfer mig fallenn.

28. Eg geing framm dockleitur, enn þó brenner sólenn mig eigi; og stend upp í safnadenum, og kalla.

29. Eg em höggormsins broder, og einn samfelags strutuglsins.

30. Mín húd er svært ordenn yfer mer, og mín bein eru af hita upp þornud.

31. Mín harpa er ordenn ein sorgar klögun, og mín hliódpípa einn hriggdar grátur.

## 31. Capitule.

1. Sáttmála gerda eg vid mín augu, ad eg skyllde eigi akta uppá neina mey,

2. Enn hvad gefir Gud her ofann ad mer í verdlaunenn? og hvad gefur sá hinn almáttuge af hædunum mer í arftöku?

3. Skylldu eigi helldur hiner ránglátu hafa soddann ólucku? og einn illgerdamadur ad vera so ut rekenn.

4. Ser hann eigi mína vegu, og telur alla mína göngu?

5. Hefi eg nockud geinged í hegómanum? eda hefir minn fótur flytt ser til svikrædesins?

6. So vege mann mig á rettre vog, og mun Gud formerkia mitt meinleyse.

7. Hafe minn gangur af veigenum viked, og mitt hiarta mínum augum epterfylgt, og hafe þar nockud lodad vid mínar hendur,

8. Þá skal eg nidur sá, enn ein annar skal þad upp eta, og mitt sleckt skal þá upprætt verda.

9. Hafe mitt hiarta láted teygia sig til kvenna, eda hafe eg í leynum staded í húsdyrum míns náunga.

10. Þá verde mín eigennkona af einum ödrum skömmud, og adrer ligge med henne.

11. Þvi þad sama er einn löstur, og einn misgerningur fyrer dómaranum.

12. Af þvi, ad þad være sá elldur, sem allt uppbrennde til fordiörfunar, og upprætte alla mína inntekt.

13. Hafe eg fyrerlited rettarfared míns þiónustumanns, eda þiónustukvinnu, nær þau hafa kærumál vid mig.

14. Hvad villde eg til gera nær ed Gud tæke sig upp? og hveru skyllda eg svara, þegar hann vitiar?

15. Hefir hann eigi gert hann, sem mig gerde í modur kvide? og hefir hann í lífenu eins vel tilreidt?

16. Hefi eg sagt nei vid bæn hins fátæka, og let eg eckiunnar augu vanmegnast?

17. Hafe eg eted minn mat einn samall, so þad hiner sködurlausu hafa eigi eted þar af?

18. Þviad eg hefi audsynt mig so sem annann födur, allt í frá

mínum barndome, og þegar í frá minnar modurkvide hefe eg giarnann huggun veitt.

19. Hefe eg séd nockurn farast af fatleyse, eda láted hinn fátæka ganga fatlausann?

20. Hafa eigi hans sedur blessad mig, þá ed þeim vard heitt af mínum lamba reifum?

21. Hefe eg fared med minne hende yfer hinn fødurlausa, á medan eg sá í portdyrunum mig hafa magt til ad hiálpa?

22. Þá í burt falle mín herdablød frá auxlunum, og minn armleggur breste frá álboganum.

23. Þviad eg hræddest Gud sem annad áfelle yfer mer, og eg kunne eigi ad bera hans byrdar þunga.

24. Hafe eg sett gulled til míns trausts, og so til gullhnossins sagt: mitt traust!

25. Hafe eg gladt mig út af þvi, ad eg hafde miked gots, og þad mín hønd hefde útvegad allrahanda?

26. Hafe eg líted til liossens nær ed þad skín skiært, eda til tunglsins nær ed þad fullt geck?

27. Hafe mitt hiarta láted tæla sig heimuglega, so ad minn munn ur kysste a mína hønd?

28. Þad sama er og ein misgerd fyrer domaranum, þvi þar med hefda eg neitad Gude her ofann ad.

29. Hafe eg nockud gladt mig þá ad mínum óvin veitte illa, og upphafed mig af þvi þó ógæfa kæme yfer hann?

30. Þviad eg let minn munn eigi syndgast í þvi, þad hann æskte hans sálu neinnre bølvan.

31. Hafa þeir menn á mínu heimele eigi hloted ad seigia: Gud hann gefe þad, ad ver eigi sediunst af hans kiøte.

32. Einn gestkomande mátte eigi úte vera á náttartíma, helldur let eg mínar dyr upp fyrer þeim vegfarande var.

33. Hafe eg duled mína breckvíse sem annar madur, so eg nidurbyrgde minn misgerning leynelega?

34. Hafe eg láted hræda mig þann mikla mannfiølda, og láted þá fyrerlitningena frændskaparins frástælfa mig? eg var kirr, og geck eigi út af dyrunum.

35. Hver gefir mer einn þann sem mig heyre, so þad hinn almáttuge villde heyra mína gyrnd, og þad einhver mætte mitt málefne skrifa í eina bók.

36. Þá villda eg taka hann upp á mínar herdar, og spenna hønum ikríng um mig sem annare koronu.

37. Tøluna minna fotspora skyllda eg þá upp seigia, og eg villda framm seigia hønum þad, sem annar høfdinge.

38. Kalle mín jørd ímóte mer, og gráte hennar akurreinar tilsamans.

39. Hafe eg eted hennar ávext óbitaladann, og þvingad so lífed akursmannanna,

40. Þá vaxe mer þistlar í stadenn hveitis, og þyrnar fyrer bygg. Ordenn Jobs hafa enda.

## 32. Capitule.

1. Þá letu þeir þrír menn af ad gefa Job andsvar, med þvi, ad hann hellt sig ad vera rettlátann.

2. Enn Elihu, sonur Baracheel af Bus, út af slekte Rams, hann vard reidur Job, fyrer þad hann hellt sína sálu rettferdugre enn Gud.

3. Hann vard og reidur vid þá þría hans vine, af þvi þeir fundu hønum eigi neitt andsvar, enn fordæmdu þó Job.

4. Þviad Elihu bidleikade vid

þangad til þeir høfdu talad vid Job, af því, ad þeir voru elldre enn hann.

5. Og fyrst hann sá það, ad þar var eigi neitt andsvar til í þeirra þriggia manna munne, þá reiddest hann.

6. Og þannenn svarade Elihu, sonur Barachels af Bus, og sagde: eg em ungur, enn þer erud gamler, því forðadest eg og hræddunst ad audsyna mína list á medal ydar.

7. Eg þeinkta so: lát þú árenn tala, og lát þú þann alldurdomsins mikeleik auglysa vísdomenn.

8. Enn andenn er í mønnunum, og sá innblásturenn hins almáttuga gerer þá skilnings fulla.

9. Hiner volldugu eru eigi hiner vísustu, og hiner gømlu skilia eigi það rettdæmed.

10. Þar fyrer vil eg og tala, heyred mer, eg vil og láta siá mína konst.

11. Siáed! eg hefe bidleikad vid á medan þer tøludud, eg hugleidda ad ydrum skilninge, þangad til þer fundud uppá þá rettu rædu.

12. Og eg hefe gefed gætur ad ydur, enn siáed! þar er engenn á medal ydar sem vande um vid Job, edur svare hans mále.

13. Kannske þer meiged seigia: ver hittum á vísdomenn, ad Gud hafe útskufad honum, enn engenn annar.

14. Þad mál fullnæger mer eigi, eg vil og ei svara hønum epter ydrum ordum.

15. Oho! þeir eru óttaslegner, þeir kunna eigi meira ad svara, þeir kunna og eigi fleyra ad tala.

16. Enn af því, ad eg tafde so vid, og þeir kunna eigi ad tala (því þeir stædu kirrer og svørudu engu framar meir,)

17. Þá vil eg fyrer minn part svar gefa, og audsyna so mína konst.

18. Því eg em so fullur af þeirre rædu, ad minn ande þreynger ad mer í mínum búki.

19. Siá þú! minn kvidur er líka sem annad nytt vín, þá þat til byrgtad er, hvert ad í sundur spreinger nya leigla.

20. Eg hlyt ad tala, so eg fáe andrum, eg verd ad uppluka mínum vørum og gefa svar.

21. Eg vil og einskis persónu álíta, og eg vil engann mann lofa.

22. Þviad eg veit eigi (ef ad eg gerde þad) nema ad minn skapare munde svipta mer í burtu innann lítils tíma.

## 33. Capitule.

1. Job! heyr þú þó mína rædu, og hygg vel ad øllum mínum ordum.

2. Siá þú! eg upplyk mínum munne, og mín tunga talar í munne mínum.

3. Mitt hiarta skal rett tala, og mínar varer skulu framm seigia þann hreina skilning.

4. Guds ande hefir gert mig, og innblásturenn hins almáttuga hefir gefed mer lífed.

5. Kannt þú þá svara mer, bú þig ímóte mer og tilreid þig.

6. Siá þú! eg heyre Gude til, jafnvel sem þú, og eg em gerdur einnenn af leire.

7. Enn þú þarft þó eigi ad hræðast fyrer mer, og mín hønd skal eigi vera þer ofþung.

8. Þú talader fyrer mínum eyrum, eg hlaut ad heyra raustena þíns máls.

9. Eg em hreinn fyrer utan misverk, saklaus, og hefe enga synd.

10. Siá þú! hann hefir funded

mer søk, þar fyrer reiknar hann mig fyrer sinn óvin.

11. Hann hefir sett mínar fætur í stock, og hefir forvarad alla mína vegu.

12. Siá þú! ad rett út af þessu hinu sama þá alykta eg á móte þer, þad þú sert eigi rettlátur, þvi Gud er meire enn madurenn.

13. Hvar fyrer villt þú deila vid hann, þad hann gere þer eigi reikningskap út af øllum sínum gerningum?

14. Þvi þá nær ed Gud eitt sinn ályktar nockud, þá hagsar hann eigi um þad hid fyrsta þar epter á.

15. J draume synarennar á nóttinne, nær svefnenn fellur yfer menn, þá ed þeir sofa á sængunum,

16. Þá opnar hann eyrunn mannanna, og ognar þeim, og agar þá.

17. So þad hann í burt snúe mannenum frá sínum ásetninge, og frelse hann í frá offstækenne.

18. Og væge hans sálu í frá fordiørfunne, og hans líse, so þad falle eigi í sverd.

19. Hann hegner hønum med verkium á hans sæng, og øllum hans beinum hardlegana.

20. Og hann temur hans líkama so, ad hann klyiar vid matnum, og hans sál, so hún hefir enga lysting til matar.

21. Hans holld þad í burt hverfur, so ad synenn sliofgast, og hans bein taka ad brotna, so þau eru herfeleg ásyndar.

22. So hans sála flyter ser til fordiørfunarennar, hans líf til daudans.

23. Ef þar være einn eingell, einn af þusund, sem talade fyrer hønum, til ad kunngera mannenum, hvernenn hann mætte gera rett,

24. Þá munde hann hønum líknsamur vera, og seigia: hann skal frelsast, so hann fare eigi hedan nidur í fordiørfunena, þviad eg hefe funded eina forlíkan.

25. Hans holld skal blomgast aptur, líka sem í æskunne, og láta hann verda ungann aptur.

26. Hann mun og bidia Gud, og hann mun vera hønum líknsamur, og láta hann siá sitt andlit med glede, og hann mun þeim manne endurgiallda epter hans rettvíse.

27. Og hann mun vidurkenna sig fyrer fólkenu, og seigia: eg villde hafa syndgast, og umvendt rettenum, enn þad hefde mer engenn nytsemd vered.

28. Hann hefir frelst mína sálu, so hún fór eigi í fordiørfunena, helldur so ad mitt líf sæe liósed.

29. Siá þú! þetta alltsaman gerer Gud tvisvar eda þrisvar sinnum vid hvern einn.

30. Ad hann sæke so hans sál aptur út af fordiørfunenne, og upplyse hann med þvi liósenu þeirra lifendu.

31. Merk þetta Job, og heyr þetta! og þeig þu eg tale.

32. Enn hafer þú nockud ad seigia, þá svara þú mer: seig þú framm! ert þu rettlátur, eg vil giarnan heyra þad.

33. Enn ef þú hefir eigi neitt til, þá hlyd þú á, og þeige þú, eg vil kenna þer vísdom.

## 34. Capitule.

1. Og Elihu svarade, og sagde:

2. Heyred þer hiner vísu mína rædu, og þer hiner skínsomu hygged ad mer.

3. Þviad eyrad þad prófar mál-ed, og munnurenn smackar matenn,

4. Látum oss útvelia einn dóm, so ver meigum þeckia á medal vor hvad gódt er.

5. Þvi Job sagde: eg em rettvís, og Gud hann afneitar mer minum rette.

6. Eg hlyt ad liúga, þó eg hafe rett, eg em so kvalenn af sialfs míns skeytum, þó ad eg hafi þar engu forþenat til.

7. Hvar er einn þvilíkur sem Job, hann hver ed inndreckur hádungena líka sem vain?

8. Og geingur á veigenum med þeim illvirkiunum, og er í ferd med þvi ógudlega fólkenu?

9. Þviad hann sagde: þó einnhver se enn frómur, þá er hann þó samt einskis verdur fyrer Gude.

10. Þar fyrer þá hlyded mer þer hyggnu menn, langt se frá þvi ad Gud hann skyllde ógudlegur vera, og sá hinn almáttuge órettferdugur.

11. Helldur so, hann launar mannenum epter þvi sem hann hefir forþent til, og hitter uppá hvern einn epter sínum gerninge.

12. Án efa fordæmer Gud engann med rángindum, og sá hinn almáttuge beyger eigi rettinn.

13. Hver hefir tilskipad þad sem á jordunne er, og hver hefir sett allt jardríked.

14. Þar sem hann villde og enn ásetia ser þad, þá feinge hann vel samansafnad ollum sálum og ondum til sín.

15. Allra hollð þad munde for ganga hvert med odru, og madurenn munde verda ad osku aptur.

16. Hafer þú nú skilningenn, þá hlyd þu þvi, og hygg ad raustenne minnar órdrædu.

17. Skyllde nockur þar fyrer þvínga rettenn, þó ad hann siálfur hate hann? og þó ad þú sert stolltur, skyllder þú þá þar fyrer fordæma hinn rettferduga?

18. Skyllde nockur þad seigia til kongungsins, þú fáseingur madur! og til hofdingianna, þer hiner ógudlegu!

19. Hann þó sem eigi álítur personur hofdingianna, og ber eigi meire kennslu á hinn forkostulega, helldur enn á hinn fátæka, þviad þeir aller eru hans handaverk.

20. Menn verda ad deya skyndilega, skelfast og forganga á midnættenu; hiner osflugu verda máttlauser í burt tekner.

21. Þviad hans augu siá hvers manns vegu, og hann ser allra þeirra fótspor.

22. Þar er engenn sú þóka, eda myrkur, hvar ed illvirkiarner kunne ad fela sig.

23. Þvi þad er engum leyfelegt ad ganga í rettlætisdóm vid Gud.

24. Hann fyrerkemur so morgum stolltum, so ad þeir eru otelian de, og innsetur adra í stadenn þeirra.

25. Af þvi, ad hann þecker þeirra verk vel, og umvender deim á náttar-tima, so þeir verde í sundurslegner.

26. Þeim ógudhrædddu fleyger hann saman í eitt, þar ed þad verdur hellst sed.

27. Af þvi ad þeir viku í burtu frá honum, og skilldu eigi neitt af hans vegum.

28. So ad kalled hinna fátæku hlaut ad koma fyrer hann, og hann heyrde þá kveinan hins naudþurftuga.

29. Hvenær ed hann gefur fridenn, hver vill þá fordæma? og nær ed hann skyler andlitenu, hver mun þá geta sed hann á medal folksins og alþidunnar?

30. Og hann lætur einn hræsn-

ara ríkia yfer þeim, til ad þreyngia almúganum.

31. Eg hlyt ad tala uppá Guds vegna, og get þad eigi lated.

32. Hafe eg eigi hitt uppá rett, þá kenn þú mer betur, hafe eg hand terad órettelegana, þá vil eg eigi leingur so gera.

33. Menn vænta andsvarsins af þer, þvi þú forleggur alla hlute, og þú hefir þad uppbyriad enn eigi eg, ef þú veitst nockud, þá seig þu þad framm.

34. Þvi giarnan lætt eg hyggna menn leidretta mig, og einn vís madur hlyder mer.

35. Enn Job hann talar óskinsamlegana, og hans ord eru eigi af skilninge.

36. Minn fader! láttu Job reyndann verda allt til æfeloka, fyrer þad hann snyr ser til ránglátra manna.

37. Hann hefir og umframm sína synd gudlastad, þar fyrer lát hann fleigenn verda á medal vor, og þad hann hafe so sídann mikel ónytiu ord vid Gud.

## 35. Capitule.

1. Og Elihu svarade, og sagde;

2. Helldur þú þad fyrer rettinde, ad þú seiger: eg em rettlátare enn Gud?

3. Þvi þú seiger: hver er sá ad neins se verdur fyrer þer? hvad hiálpar þer þad, þó eg gere mig án syndar?

4. Eg vil svara þer einu orde, og þínum vinum med þer.

5. Skoda þú himenenn, og siá þú! og hygg ad skyunum, ad þau eru þer of-há.

6. Ef þu syndgast, hvad kannt þu vid hann ad gera? og ef þínar misgerder eru margar, hvad kannst þú honum ad gera?

7. Og þó ad þú sert rettvís, hvad kannt þu ad gefa honum? eda hvad skal hann medtaka af þinum hond. um?

8. Einum manne líka, sem þú ert, konn þín illska eitthvert ad gera, og þín rettvíse einu manns barne.

9. Þeir hiner sömu meiga kalla, nær ed þá sker miked ofríke, og kveina yfer armlegg þeirra hinna stóru.

10. Þeir eigi neitt skeyta um þad, hvar er Gud minn skapare, hann sem gerer þann saungenn á nóttenne?

11. Hann, hver ed gerer oss lærdare enn þann fenadenn á jordunne, og hyggnare enn þá fuglana under himmenum.

12. Og þeir munu og einnenn kalla yfer drambsemenne þeirra hinna illskufullu, og hann mun ei bænheyra þá.

13. Þviad Gud mun eigi hlyda þvi sem hegomlegt er, og sá hinn almáttuge mun eigi álíta þad.

14. Þar ad auk þá seiger þú, ad ei kunner þú hann siá, enn þar er einn dómur fyrer honum, bíd þú hans ad eins.

15. Þó ad hans reide sæke þig ei snarlega heim, og take sir þad so brádlega til, ad þar eru marger bádungar menn.

16. Þar fyrer hefir Job upplokad sinum munne forgefens, og frammbored drambsöm ord med skilningsleyse.

## 36. Capitule.

1. Elihu talade enn framar meir, og sagde:

2. Bíd þú mín enn litla stund, eg vil kunngera þer þad, þviad eg hefe enn nockud ad seigia af Guds hálfu.

3. Eg vil sækia mína skilnings vitsku áleingdar, og bvísa um minn skapara, ad hann se rettvís.

4. Mín ordræda skal án efa faislaus vera, og mín skilnings vitska skal lastalaus vera fyrer þer.

5. Siá þu! Gud hann burtkast ar eigi hinum volldugu, hann er volldugur ut af hiartans krapte.

6. Hann helldur eigi vid magt hinum ógudlega, helldur hiálpar hann hinum fatæka til rettarins.

7. Hann í burt snyr eigi sínum augum frá rettferdugum, og hann lætur konungana sitia alla æfe á sínum tignar-stólum, so þeir verda volldugér.

8. Og hvar ad fangarner liggia í fótabolltunum, og eru aumlega reirder med reipum,

9. Þá kunngerer hann þeim hvad þeir hafa adhafst, og þeirra ódygd, ad þeir hafa yfergangsamer vered.

10. Og hann opnar þeim eyrad til aga, og seiger þeim: ad þeir skule í burt snúa ser frá ránglætenu.

11. Ef þeir hlyda þvi og þióna honum, þá munu þeir gamler verda í sælld, og lifa med glede.

12. Enn ef þeir hlyda eigi, þá munu þeir falla í sverd, og forganga, fyrr enn þá varer þess.

13. Nær ed reidenn hitter hræsnarana þá kalla þeir eigi, nær þeir liggia í fiøtrunum,

14. Þá mun þeirra sál med kvalrædunum deya, og þeirra líf á medal hórunarmanna.

15. Enn þá fátæku mun hann frelsa út af þeirra eymdar vesolld, og opna volabra eyru í hørmungenne.

16. Hann mun burtrickia þer úr þeim vídu kverkunum kvalanna, sem engann botn hafa, og þitt matbord mun hafa hvílld, fullt med allskins gæde.

17. Enn þú fegrar málefned hins ógudlega, so þeirra málefne og rettur helst vid magt.

18. Hygg þú ad, hvert ei hafe mátt so ske, ad reidenn hafe komed þer til ad plága nockurn, eda ad miklar sorgiafer hafe eigi beygt þig.

19. Meinker þú, ad hann skeyte þinne magt, edur gulle, edur nockurskonar stirkleik, edur formegan.

20. Þú þarft eigi ad gyrnast nóttarennar, til ad yfervinna lydenn í þeirra stødum.

21. Vara þú þalfann þig, og snú þer eigi til ránglætesins, so sem þú uppbyriader fyrer þinnar vesælldar saker.

22. Siá þú! Gud er miøg ofurhár í sínum krapte, hvar er einn þvilíkur kennemadur sem hann er?

23. Hver vill heimsækia hans veg yfer hønum? og hver vill so seigia til hans: þú gerer rángt?

24. Hugleid þú, þad þú veitst eigi hans verk, so sem menn singia.

25. Þviad aller menn siá þad, og fólked skodar þad áleingdar.

26. Siá! Gud er mikell og ókenndur, hans áratølu kann eingenn ad rannsaka.

27. Hann gerer vatned ad litlum dropum, og þrepper sín sky saman til regns.

28. So ad skyenn flióta og driúpa miøg ofan yfer mennena.

29. Þegar hann vill útbreida sín sky so sem hátt tialld sitt,

30. Siá þú! so útbreider hann sitt lios yfer þá hinu sømu, og hylur allar hafsins endemerkur.

31. Þviad þar med hræder hann mennena, og hann gefur þó gnoglega fædslu.

32. Hann byrger liosid so sem

í hondum ser, og skipar þvi þó aptur ad koma.

33. Um þad sama ber vitne hans samfelage, sem er reidenn þeirrar þrumunnar í skyunum.

## 37. Capitule.

1. Vidur þvi ognar mínu hiarta, og þad skelfist þar vid.

2. Kære! heyred þó hversu reid ad hans reidarþruma hún er, og hvada mál þar gengur út af hans munne.

3. Hann ser under alla himna, og leiptrun hans skín yfer endemark jardar.

4. Þar epter eftrar reidarþrumann, og hann lætur skruggur koma med sínum miklum hliodum, og nær ed hans reidarþruma hún heyrest, þá far henne engenn aptur halldeð.

5. Gud hann dunar ógurlega med sinne reidarþrumu, og gerer mikla hlute, og verdur þó eigi þecktur.

6. Hann mæler til sniófarins, þá kemur hann jafnsnart á jordena, og til steiperegnsins, þá er steiperegned þar med magt.

7. Alla menn hefir hann í sinne hende, so sem innelucta, so ad fólked skal læra, hvad hann kann ad gera.

8. Þad villudyred geingur inn í sitt hreyse, og blífur í sínum stad.

9. Af sudrenu kemur vedur, og af nordrenu kuldenn.

10. Og út af Guds andarbrætte kemur frosted, og miked vatn, nær ed hann lætur þar hlána.

11. Þau eru þicku skyenn adskilia sig, so ad heidbiart verdur, og hans liós skyn í gegnum þá þokuna.

12. Hann snyr skyunum hvert hann vill, so þau fullgera á jardrike allt þad hann bydur þeim.

13. Hvert þad er helldur yfer kynslekte, edur yfer einu lande, þar sem hann finnst miskunsamur.

14. Job! merk þetta, statt þú og hygg ad Guds dásemdarverkum.

15 Veistu þú, nær ed Gud sender soddan yfer þá? og nær ed hann lætur liósed skína skya brióstast her framm?

16. Veist þu, hvernenn ad skyenn útdreifa ser? hver dásemdarverk þeir fullkomnu vita.

17. So ad þín klæde eru þó vorm, nær ed landed er kirrt af sunnanvedrenu.

18. Já! þú munt útbreida skyenn med honum, sem fast standa sem annar steyptur siónar speigell.

19. Seig þú oss, hvad ver eigum honum ad seigia: þviad ver kunnum eigi ad ná alla gotu þangad fyrer myrkrenu.

20. Hver vill telia upp fyrer honum þad eg tala? ef ad nockur talar þad, þá uppsvelgest hann.

21. Nú sest eigi þad liósed, sem skært skyn í skyunum, enn nær ed vindurenn blæs, þá verdur þar biart vedur.

22. Af nordrenu kemur gulled, þeim ógurlega Gude til lofs.

23. Enn þeir kunna eigi ad hondla hinn almáttuga, sem so er mikell af kraptenum, þviad hann mun engann reikningskap standa af sínu rettdæme og gódu málefne.

24. Þar fyrer meiga menn óttast hann, og hann hrædest engann, hversu vísir sem þeir eru.

## 38. Capitule.

1. Og Drottinn svarade Job, af einum vindbil, og sagde:

2. Hver er sá, sem so skeikar í

vísdomerum, og talar so med ófkin- seme?

3. Umgyrd þínar lendar sem einn madur.

4. Eg vil adspyria þig, kenn þú mer. Hvar varst þú þá eg lagde grundvöll jardarennar? seig þú mer þad, ef þú ert so mikell skilnings madur?

5. Veitst þú hver ed seite hennar mátt? edur hver ed dró þann mælesnúrenn yfer hana?

6. Eda hvar uppá hennar fætur standa nidur sökter? eda hver ed lagde hennar hyrningar stein?

7. Þá ed morgunstiörnurnar hver med annare lofudu mig, og öll Guds börn þar glöddu sig.

8. Hver hefir tillukt siáfarhafed med sínum dyrum, þá ed þad braust út, so sem af modurkvide?

9. Þá ad eg klædde þad med skyunum, og vafde þad í þokunne so sem í ödrum reifum.

10. Þá ad eg braut þess hlaup med mínu bode, og sette steingur og hurd þar fyrer.

11. Og sagde: allt hingad ad skallt þú koma, enn eigi leingra, her skulu þínar stolltar bylgiur leggia sig.

12. Hefir þú á þínum tíma boded morgnenum, og vísad morgunstiörnunne sinn stad?

13. So hún höndlade hornenn jardarennar, og þad hiner ógudlegu yrde útkastader?

14. Þad innsigled mun breyta sér so sem leir, og þeir standa sem eitt klæde.

15. Og liósed skal takast frá þeim ógudlegu, og armleggurenn hinna drambláta skal í sundur briótast.

16. Hefir þú ofan komed til hafsins grunna, og genged í diúpsins fótsporum?

17. Hafa daudans port nockurn tíma opnad sig fyrer þer? eda hefir þú sed myrkranna portdyr?

18. Hefir þú ásklnia orded hversu breid jördenn er? seig þú fram: veitst þú allisaman þetta?

19. Hvar er sá vegurenn þar liósed bygger, og hver ed myrkursins stadur?

20. So ad þú kunner burt ad taka þess landamerke, og formerkia þann farveigenn til þess húss.

21. Visser þú, ad þú skyllder á þeim tíma fædast og hversu marger þíner dogar skylldu verda?

22. Hefir þú þar vered hvadan ad sniórenn kemur? eda hefir þú sed hvadan hagled kemur?

23. Hveru ad eg inne helld til hörmungartímans, og til þess dags stridsins og bardagans.

24. Um hveru veg skipter liósed sér? og uppfer sá austanvindurenn á jördena?

25. Hver útskipte steypedögg-enne sína rás? og gerde veigenn elldinganna og reidarþrumanna?

26. So ad þar rigne í landed, þar sem engenn er, í þá eydemörkena, sem engenn madur er.

27. So þad uppfyller eydemörkena og þá oræfenn, og lætur gras gróa.

28. Hver er daggarennar fader? hver hefir fædt dropa daggarennar?

29. Af hvers kvide er ísenn útgeingenn? og hver fædde hrímfrosted under himnenum?

30. So ad vatned verdur huled líka sem under steinum, og diúped tillykt ad ofan.

31 Kannt þú þad banded stiörnanna saman ad binda? ellegar upp ad leysa þad bellted þess Orions?

32. Kanntu ad láta morgunstiörnuna frammkoma í sinn tí-

ma? eda ad færa þann vagnenn af himnenum yfer sín børn?

33. Veitstu hvernenu þad himnennenn skal regerast? eda kanntu ad kenna hønum nockud á jørdu.

34. Kanntu þínar reidarþrumur ad flytia hátt upp í skyenn? edur mun sá mikeleikenn vatnsins hylia þig?

35. Kanntu ad láta þær elldingarner út, so ad þær útfare, og seige: her erum vær?

36. Hver gefur vísdómenn í þad leyndа? hver gefir skinsamlegar hugsaner?

37. Hver er so víss ad hann kunne ad telia skyenu?

38. Hver kann til ad dyyta him ensins vatnsbelge? þá ed þvi dupte enu verdur uthellt, ad þad hleypur so tilsamans, og þad hver hnausenn loder vid annann.

## 39. Capitule.

1. Kanntu ad gefa Leonsinnunne þad hun veide sína brad, og ad metta þá Leons hvelpana?

2. So ad þeir legge sig í sínum stad, og hvíle sig í þeim silsnunum sem þeir lura?

3. Hver tilreider hrafnenum fædslu, nær ed hans ungar kalla til Guds, og slinga viller, þá þeir hafa enga fædslu?

4. Veitstu þann tímann nær steingeiturnar bera á fiøllunum? eda hefir þu gád ad þvi, nær hindurnar ganga kalfbærar?

5. Hefir þú taled þeirra mánude, nær ed þær verda fullar? edur veitst þú þann tímann, nær ed þær bera?

6. Þær beygiast saman nær ed þær bera, og sundurslíta sig, og þær útláta sína kálfa.

7. Þeirra kálfar verda feiter og næra sig af korn-nu, og ganga út, og koma eigi til þeirra artur.

8. Hver hefir láted þau villudyrenn ganga so sialfráda? hver hefir uppleyst bandeð villudyranna?

9. Hverum ad eg hefe gefed skógenn til húss, og eydemørkena til íbyggingar.

10. Þau spotta háfadann í borgunum; kalled iagarans heyra þau eigi.

11. Þau líta til fiallanna hvar ad þeirra fæda er, og leita epter hvar grænt er.

12. Meinar þú þad einhyrningurenn munne þióna þer? og ad hann mune stadnæmast vid þinn stall?

13. Kannt þú ad binda þit Ok á hann, so ad hann ere upp þær akurreynar, ad hann uppryde epter þer í dalnum?

14. Máttu treysta uppá þad, þott hann se so sterkur, so þú skuler láta hann erfida fyrer þig?

15. Máttu trua hønum til þess, ad færa þer þitt fæde aptur, og inn ad safna í þína kornhlødu?

16. Páfuglsins fiadrer eru fegre enn hans vænger, og fiadrer storksins (edur strutsuglsins.)

17. Hann sem lætur sín egg á jørdena, og lætur þá heitu jørdena útklekia þeim.

18. Hann forgleymer þeim, ad þau mætti í sundur trodast, og þad eitt villudyr mætte þau í sundur brióta.

19. Hann verdur so hardhyll vid sína unga, líka sem þad hann ætte þá eigi, og hann skeyter þvi eigi, ad hann arfidar so til forgefens.

20. Þviad Gud hefir svipt hann vitenu, og útdeilt hønum engann skilning.

21. Nær ed hann fer hátt upp

þá forhefur hann sig, og hann skimpar bæde hestenn og mannenn.

22. Kanntu ad gefa hestenum styrkleika? eda ad pryda mackann á honum med hans hneggian?

23. Kanntu ad hræda hann sem grashoppur? hvad sem hrædelegt er, þad er prís fyrer hans nösum.

24. Hann fótstappar á jördena, og er offa frammgiarn med styrkleik, og fer út ímóte þeim sem brynjader eru.

25. Hann hæder ad hrædslunne, og skelfest eigi, og hann flyr eigi fyrer sverdenu.

26. Þinnenn þó þar klinge í pylna-koffrenu, ímóte honum, og þó gliáe bæde á spiót og lensur.

27. Hann hristest og æder og krassar í jördena, og skeyter eigi herlúdursins hlióde.

28. Nær ed herlúdurenn gellur hátt, seiger hann hvi: og lyctar bardagann áleyngdar, hróped hösdingianna og gledekalled.

29. Flygur haukurenn epter þínum skilninge, og útbreider sína vænge mót sudrenu?

30. Flygur örnenn þanneign hátt af þinne skipan, so hún gere sitt hreidur í hædunum?

31. Hún bygger í klettunum, og stadnæmest uppá þeim fiallagnypunum, og í föstum stödum.

32. Þadan skygner hún epter fædslunne, og hennar augu þau siá langt í burt.

33. Hennar ungar þeir svelgia blód, og hvar helst þad hræed er, þar er hún.

34. Og Drottinn svarade Job, og sagde:

35. Hver sem vill þræta vid hinn almáttuga, skal hann eigi bivísa þad? og hver hann straffar Gud, skal hann eigi forsvara þad?

36. Job svarade Drottne, og sagde:

37. Siá þú! eg hefe nógu ovordstyrkur vered, hveru skal eg svara? eg vil hallda hende minne fyrer munnmer.

38. Einusinne hefe eg talad, þar fyrer vil eg eigi meir andsvar gefa, eg vil eigi þad sama hedan í frá lengur gera.

## 40. Capitule.

1. Og Drottinn svarade Job af vindbilnum, og sagde:

2. Umgyrdtu þínar lendar, sem madur, eg vil spyria þig ad, kenn mer.

3. Skyllder þú gera minn dom til ónytis, og fordæma mig, so þú rettlátur verder?

4. Hefir þú einn slíkann armlegg sem Gud, kanntu med soddann hlióde ad duna sem hann gerer?

5. Pryd þú þig med fegurdarskraute, og halt þer á lopt, klæd þig kostulega og herlega.

6. Utbreif þú þinne heiptar-reide, skoda þú drambsama, hvar þeir eru, og lækka þá.

7. Já! skoda þú þá drambsömu hvar þeir eru, og beyg þú þá, og ger þá hina óguđsegu forþunna hvar þeir eru.

8. Raka þeim tilsamans í jördena, og nidursöck þeirra bramle í þau leynefylsnenn.

9. Þá vil eg medkenna fyrer þer, þad þín hægre hönd kann ad hiálpa þer.

10. Siá þú Behemoth, þann eg gerda hiá þer, hann etur hey sem annar uxe.

11. Siá þú! hans kraptur er í hans lendum, og hans styrkleikur í naflanum hans búks.

12. Halenn á honum útretter sig sem cedrus, og þad ædarnar hans

leynbarlims standa upp sem adrer kvister.

13. Beinenn í hønum eru líka sem koparpípur, hans bein eru líka sem járnstafur.

14. Hann er þad upphafed Guds vegar, þess er hann gerde, hann þrífur til hans med sínu sverde.

15. Fiøllenn þau bera hønum grøs, og øll villudyrenn þau leika ser þar.

16. Hann liggur giarnan under skugganum, hulenn í reyrnum og bleytunne.

17. Skógar-runnurenn skyler hønum í sínum skugga, og þeir víder-runnarner skyla hønum.

18. Siá þú! hann svelger straumenn í sig, og acktar lítels, og lætur ser þykia ad hann vile upp ausa Jordan med sínum munne.

19. Þó veida menn hann med hans sialfs eigenlegum augum, og med ennre snøru bora menn hans naser ígegnum.

## 41. Capitule.

1. Kanntu ad draga þann Leviathan med aunglenum? eda binda hans tungu med snære?

2. Kanntu ad láta hríng í hans náser, edur ad bora med prióne ígegnum hans kinnbein?

3. Hvert þeinkter þú ad hann mune bidia þig miøg hugarlátlegana, ellegar smiadra fyrer þer?

4. Þeinker þú hann mune gerá þann sáttmálann vid þig, so þú meiger alltiafnt hafa hann fyrer svein?

5. Kanntu ad leika so vid hann sem annann fugl? edur binda hann hiá þínum þiónustukvinnum?

6. Þeinker þú, ad sá mannflockurenn mune skera hann ísundur, og útskipta hønum so á medal kaupmannanna?

7. Kannt þú þad net ad fylla med hans húdarskinne, og þær sískætúrnar med hans høfde?

8. Nær ed þú leggur þína hønd á hann, þá þeink þú, ad þad er þad stríd á hveru þú kannt engann enda ad gerá.

9. Siá þú! hans von mun bregdast hønum, og nær ed hann verdur sen, þá skytur hann ser í burt.

10. Þar er og engenn so diarfur þar þore ad reita hann, hver er sá þá, sem kann ad standast fyrer mer?

11. Hver hefir gefed mer ádur fyrre, so ad eg meige endurgialda hønum? þad er mitt sem under øllum himnenum er.

12. Þar til má eg nú seigia: hversu stór, hversu megtugur, hversu vel þad hann er skapadur.

13. Hver kann hans klædum upp ad lypta? og hver þorer þad voga, ad grípa á millum hans tanna?

14. Hver kann upp ad lúka kialkabeinum hans andlits? hans tennur standa hrædelega allt umkring.

15. Hans dramsama hreistur er so sem sterker skyllder, faster og þraunger hver vid annann.

16. Einn nemur vid þann annan, so þar geingur eigi vindurenn út á mille.

17. Þad eina hanger vid þad annad, og helldur ser tilsamans, so þad kann eigi ad frá skiliast hvert ødru.

18. Hans blástur leiptrar sem liós, hans augu eru so sem morgunstiørnunnar augabrún.

19. Af hans munne ganga logbrandar, og glóande gneistar fliúga þadan út.

20. Af hans nøsum gys reykur, so sem úr heitum pottum og kotlum,

21. Hans ande er sem liós loge,

og þar útgengur elldsloge af hans munne.

22. Hann hefir og einn øflugann háls, og þad er hans vellysting hvar hann getur nockru spillt.

23. Hans kiøts limer heingia hver vid annann, og halída fast vid hann, so ad hann kann eigi ad hræraſt.

24. Hans hiarta er so hardt sem griótsteinn, og so øruggt sem einn parturenn út af þeim underkuarnar steinenum.

25. Nær hann hefir sig upp, þá skelfast hiner øflugu vid þad, og nær ed hann brytst framm, þá er engenn líkn til.

26. Nær enhver vill til vid hann med sverde, edur med spióte, skeytum eda panzara, þá hrærer hann sig eigi.

27. Hann skeyter iárnenu só miked sem stráe, og malmenum sem rotnum træſtaur.

28. Ecke skéyte mun foriaga hann, sløngusteinarner eru fyrer hønum sem agner.

29. Sleggiuhamarenn reiknar hann sem gras strá, hann hæder skiálfande spiót.

30. Under hønum liggia hvasser steinar, og hann fer yfer um eggiagrióted, líka sem yfer um leirbleytu.

31. Hann gerer þad, ad diúped haffins sídur upp sem annar pottur, og hann hrærer þad tilsamans, líka sem madur samblandar smirsla vatn.

32. Farvegurenn hann leiptrar epter hønum, diúped gerer hann hardla grátt.

33. Þar kann og engenn á jørdunne ad jafnast vid hann, hann er til þess gerdur, ad hann eigi uggalauſt ad vera.

34. Hann fyrerlítur allt hvad hátt er, hann er og einn kongur yfer øllum dramblátum.

## 42. Capitule.

1. Og Job svarade Drottne, og sagde:

2. Eg medkenne ad þú megnar øllu, og ad þar er engenn þanka fólgenn fyrer þer.

3. Sá er einn fávís madur sem þad þeinker, ad hann gete huled sitt rád. Þar fyrer þá medkenne eg, ad eg talade fávíslega um þad sem mer er forhált, og eg skil eigi.

4. So heyr þú nú, leyf þú mer ad tala, eg vil spyria þig ad, lær þú mig.

5. Eg hefe heyrt þig med eyrunum, og mín augu þau siá þig nú einnenn.

6. Þar fyrer játa eg mig nú sakadann vera, og eg vil idran gera í øsku og dupte.

7. Þá ed Drottinn hafde nú talad þesse ord vid Job, þá sagde hann til Eliphas af Theman, mín reide er heiptug ordenn yfer þer og þeim tveimur þínum vinum. Þviad þer hafed eigi talad rettvíslega um mig, so sem minn þenare Job.

8. So taked nú siø uxa, og siø hrúta, og ganged burt til míns þenara Jobs, og offred brenneførum fyrer ydur, og láted Job minn þenara bidia fyrer ydur, þviad hann vil eg álíta, so ad eg láte ydur eigi siá hversu fávíslega ad þer hafed gert, þviad þer hafed eigi talad rett um mig so sem minn þenare Job.

9. So fóru þeir Eliphas af Theman, Bildad af Suah, og Zophar af Naema, og gerdu sem Drottinn hafde sagt þeim. Og Drottinn áleit Job.

10. Og Drottinn snere Jobs fiøtrum, þá ed hann bad fyrer vinum sínum.

Og Drottinn gaf Job tvøfallt so miked sem hann hafde ádur haft.

11. Og aller hans brædur og allar hans systur, og aller þeir ed ádur voru hans kunningiar, þá komu þeir til hans, og átu med hønum í hans húse, og snerust til hans, og huggudu hønum, yfer øllum þeim hørmungum sem Drottinn hafde láted yfer hann koma. Og hver einn þeirra gaf hønum fagrann silfurpening, og eitt gullhlad.

12. Og Drottinn blessade Job epter þad, meir enn ádur fyrre, so ad hann feck fiortan þusunder sauda, og sex þusund úlfallda, og þusund pør uxa, og þusund asna.

13. Og hann feck siø sonu og þríar dætur.

14. Og hann kallade þá fyrstu Jemima, hina adra Kezia, og hina þrídiu Kerenhapuch.

15. Og þar fundust eigi so fríd-ar kvinnur í øllum løndunum, sem ad voru þær dætur Jobs, og fader þeirra gaf þeim arfløku á medal brædra sinna.

16. Og Job lifde sídan, epter þad, í hundrad og fiørutíu ár, so hann sá børn og barna børn sín, allt til fiorda lids.

17. Og Job andadest gamall, og saddur lífdaganna.

Endet Jobs bókar.

# Davids Psalltare.

## 1. Psalmur.

1. Sæll er sá (madur) hver ed ei gengur í ráde ógudlegra, ne helldur stadnæmest á vege syndugra, og hann sem ei situr á stóle hádungarmanna.

2. Helldur hefir sína lysting í løgmále Drottins, og talar um hans løgmál dag og nætur.

3. Hann er líka sem vidartre, hvert ad rótsett er í hiá vatns lækum, hvert ed ber sinn ávert í sínum tíma, og hans laufblød munu eigi visna, og allt hvad hann gerer, þad mun luckast vel.

4. Enn þannenn eru ey hiner ógudhræddu, helldur líka sem hisme, hveru ad vindurenn burt feyker.

5. Þar fyrer fá ei þeir ógudlegu stadest í dómenum, eigi helldur hiner syndugu í samkundu rettlátra.

6. Þviad Drottinn þecker veginn rettlátra, enn vegur ógudhræddra mun fyrerfarast.

## 2. Psalmur.

1. Hvar fyrer æda heidnar þiódir, og því talar fólked so fáfeingelega hlute?

2. Kongarner landsins taka sig upp, og høfdingiarner bera sín rád saman, móte Drottne, og imóte hans smurda.

3. Látum oss þeirra bønd í sundur slíta, og í burtsleyna frá oss þeirra reipum.

4. Enn sá sem á himnum byr, hlær ad þeim, og Drottinn hæder ad þeim.

5. Hann mun eitt sinn tala til þeirra í sinne reide, og í sinne grimmd mun hann skelka þá.

6. Enn eg hefe innsett minn kong yfer mitt heilaga fiall Zion.

7. Eg vil af sodan vísu predika, ad Drottinn hefir talad til mín, þú ert minn sonur, í dag fædda eg þig.

8. Oska þú af mer, þá vil eg gefa þer heidnar þióder til arfleyfdar,

og jardarennar enda þer til eign-
ar.

9. Þú skallt í sundur slá þá med
einnre járnspíru, og líka sem leir-
ker þá skalltu ísundur brióta þá.

10. So láted ydur nú undervísa
þer kongungár, og láted leidretta
ydur þer sem erud dómendur á
jørdunne.

11. Þióned Drottne med ótta,
og gleded ydur med skiálfta.

12. Minnest vid sonenn, so ad
hann verde ydur eigi reidur, og þer
fyrerfarest á veigenum. Þviad
hans reide mun snarlega upptend-
rast, enn sæler eru þeir aller sem á
hann treysta.

## 3. Psalmur.

Psalmur Davids, þá hann vard
farflótta fyrer syne sínum Ab-
salon.

1. 2. O ho Drottinn! hvernenn
eru míner óviner so marger, og se-
tia sig so marger á móte mer!

3. Marger seigia um mína sá-
lu, hún hefir enga hiálp hiá Gude,
Sela.

4. Enn þú Drottinn ert skiøld-
ur fyrer mér, og sá sem mig til
heidurs setur, og hann sá ed mitt
høfud uppheſir.

5. Eg kalla med minne raust til
Drottins, so bænheyrer hann mig
af sínu heiløgu fialle, Sela.

6. Eg ligg og sef og vakna, þvi-
ad Drottinn hann vidhelldur mer.

7. Eg óttunst eigi mørg hund-
rud þusund, þeirra sem leggia sig
allt umkring á móte mer.

8. Upp Drottinn! og hiálpa mér,
minn Gud! þviad þú slær hvag vid
vanga allra minna óvina, og í sund-
ur brytur tennur ógudlegra.

9. Hiá Drottne finnur madur
hiálpena, og þína blessan yfer þitt
folk, Sela.

## 4. Psalmur.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia
uppá streingialeik.

2. Bænheyr þú mig þá eg kalla,
Gud mitt rettlæte! sá ad mer hugg-
ún veiter í angistenne, vert mer
nádugur, og heyr mína bæn.

3. Þer Herrar, hversu lenge skal
mín dyrd mínkud verda? hvar fyr-
er elsked þer so hegomann, og lyg-
arnar so giarnann? Sela.

4. Vidurkenned þó, ad Drott-
enn flytur undarlega sína heilaga,
Drottinn heyrer þá eg ákalla hann.

5. Ef þer reidest, þá syndgest ei-
gi, taled vid ydar hiørtu í ydrum
hvílurúmum, og bided, Sela.

6. Offred rettlætesins offre, og
vonid á Drottinn.

7. Marger seigia: hvernenn skal
þesse oss syna, hvad godt er? enn þú
Drottinn! upphef þú yfer oss liós
þíns andlitis.

8. Þú gledur mitt hiarta, þott
þad þad hiner adrer hafe nægd
víns og korns.

9. Eg ligg og sef med øllu í fri-
de, þviad þú Drottinn alleinasta
hiálpar mer, þad eg óttalaust byg-
ge.

## 5. Psalmur.

Davids Psalmur fyrer ad syngia
fyrer erfdina.

1. 2. Drottinn! heyr þú mín ord,
og áthuga mína rædu.

3. Hygg ad hrópe mínu, minn
kongur og minn Gud, þviad til þín
vil eg bidia.

4. Drottinn! árla viler þú heyra
mína raust, árla vil eg skicka mer
til þín, og merkia þad.

5. Þviad þú ert eigi einn Gud,
þe[illegible] ed ógudlegt athæfe líkar; hver
sem er illur hann verdur eigi hiá
þer.

6. Þeir sem drambsøm ord tala

stonda eigi fyrer þinne augsyn, þú hefir ad hatre alla illgerda-menn.

7. Þú fyrerferþeim lygemælendum, Drottinn hefir andstyggd vid þeim blódgyrugu og følsku.

8. Enn eg vil uppá þína miklu giæsku innganga í þitt hús, og tilbidia í mots vid þitt heilaga mustere í þínum ótta.

9. Leid þú mig Drottinn í þínu rettlæte, fyrer minna óvina saker, greid þú þinn veg fyrer mer!

10. Þviad í þeirra munne er ecke víst, þeirra hid innra er hiartans angur, þeirra barke er ein openn grøf, med sínum tungum smiadra þeir.

11. Skullda þú þá Gud! so þeir falle í frá sínum ásetninge, rek þá út fyrer þeirra mikellra misgerda saker, þviad þeir eru þer þverbrotner.

12. Lát þá alla glediast sem treysta uppá þig, eylíflega lát þú þá fagna, þviad þú vernbar þá, lát þá glada vera í þer sem þitt nafn elska.

13. Þviad þú Drottinn blessar þá hina rettlátu, þú koronar þá med nád, so sem med skyllde einum.

## 6. Psalmur.

Psalmur Davids ad syngia fyrer uppá átta streinge.

2. Ach Drottinn! straffa mig eigi í þinne reide, og typta mig eigi í þinne grimmd.

3. Miskuna þú mer, Drottinn! þviad eg em veikur, lækna þú mig, Drottinn! af þvi ad mín bein eru skelfd.

4. Og mín sála er nærsta miøg hrædd, o þú Drottinn! hversu lenge?

5. Snú þú þer Drottinn, og hiálpa minne sálu, hiálpa þú mer fyrer þinnar miskunar saker.

6. Þviad í daudanum þeinker madurinn ei uppá þig, hver vill þacka þer í helvíte?

7. Eg em so mæddur af andvarpan, eg bleyte um alla nóttena mína sæng, og í mínum tárum þá vætt eg mitt legurum.

8. Mín ásynd er følnud af hriggd, og tekur ad elldast, þviad eg hefe angist á alla vegu.

9. Víked í burtu frá mer aller illgerda menn, þviad Drottinn hann heyrer minn grát.

10. Drottinn hann heyrer mína beidne, Drottinn hann medtekur mína bæn.

11. Aller míner óviner munu til skammar verda, og miøg skelfast, um hæl snúast, og til skammar verda snarlega.

## 7. Psalmur.

Sakleyse Davids, hvar um hann saung fyrer Drottne, vegna orda þess Morlendska Jemenita.

2. Uppá þig Drottenn true eg, minn Gud! hiálpa þú mer í frá øllum mínum offoknurum, og frelsa mig.

3. So ad þeir gryþe eigi sem Leon mína sálu, og í sundur slíte, fyrst ad þar er engenn sem ad frelsar.

4. Drottinn, minn Gud! ef ad eg hefe slíkt gert, og ef ranginde eru í mínum høndum.

5. Ef ef hefe þeim illt endurgolldet sem lifdu fridsamlega med mer, edur hafe eg skada gert þeim, sem míner óviner voru fyrer utan søk,

6. Þá offæke minn óvinur sálu mína, og handtake hana, og sóttrode mitt líf nidur til jardar, og legge mína æru í dupt, Sela.

7. Statt upp Drottenn í þinne

reide! upphef þig yfer grimmd óvina minna, og hiálpa mer aptur í þad embætte, sem þú hefir bifalad mer.

8. So þad lydurenn safnest til þín aptur, og vegna þess hins sama, þá kom þú hátt upp aptur.

9. Drottinn hann er dómare yfer fólkenu, dæm þú mig, Drottinn! epter minne rettvíse, og fromleika.

10. Láttu hreckvíse þeirra ógudlegu fá enda, og forframa þú þann rettláta, þviad þú, rettvíse Gud! rannsakar hiortun og nírunn.

11. Minn skiolldur er hiá Gude, sá ed hiálpar þeim sem eru fromer af hiarta.

12. Gud hann er einn rettvís domare, og einn Gud, sá hver ed daglega hótar.

13. Vile menn eigi bæta sig, þá hefir hann hvatt sitt sverd, sinn boga hefir hann upp spannad, og midar til.

14. Og hann hefir þar álagt baudlig skeyte, sínar örvar hefir hann tilreidt til ad fordiarfa.

15. Siá þú! hann hefir illt í sinne, hann gengur med ógæfuna, enn hann mun fæda misbrestenn.

16. Grøfena hefir hann grafed, og upprudt, og er fallenn í þá grøf sem hann gerde

17. Hans ólucka mun hønum í koll koma, og hans órettlæte mun falla yfer hans hvirfel.

18. Þacker gere eg Drottne vegna hans rettlætis, og eg vil lofa nafn Drottins hins allrahæsta.

## 8. Psalmur.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia uppá Githith.

1. 2. Drottinn, vor Drottnare! hversu dádsamlegt er þitt nafn í øllum løndum, þú sem setur þína lofgerd á himnenum!

3. Utaf munne smábarna og brióstmylkinganna hefir þú einn styrkleika tilbúed, fyrer þinna óvina saker, so ad þú afmáder óvinenn og hinn hefndargiarna.

4. Þviad eg mun siá himnana, verk þinna fingra, tungled og stiornurnar, hverar ed þú hefir tilbúed.

5. Hvad er madurenn þess, ad þú skuler minnast hans? og mannsins barn, þad þú viter þess?

6. Um lítenn tíma muntu láta hann af Gude yfergefenn vera, enn med æru og pryde muntu hann korona.

7. Þú munt gera hann einn Herra yfer verkinn þinna handa, alla hlute hefir þú hønum under fætur lagt.

8. Saude og naut, allt tilsamans, þar med einnenn villudyrenn.

9. Fuglana under himnenum, og fiska í siónum, og allt hvad í hafenu geingur.

10. Drottinn vor Drottnare! hversu dádsamlegt er þitt nafn í øllum løndum!

## 9. Psalmur.

Psalmur Davids út af þeirre dæelegu ungdoms æsku fyrer ad syngia.

1. 2. Eg þacka Drottne út af øllu mínu hiarta, og framm tel allar þínar dádsemder.

3. Eg fagna og em gladur í þer, og lofa þitt nafn, þú hinn allrahæsta.

4. Þad þú rakst mína óvine á hæl aptur, þeir eru fallner, og fyrerfórust fyrer þer.

5. Þviad þú gerder mer rett, og frammfylger mínu málefne, þú situr á stolnum, einn rettvís dómare.

6 Þú straffar heidingiana, og fyrerkemur þeim ógudlegu, þeirra

nøfn affkefur þú alltíd og ad eylífu.

7. Sverdenn ovinarins hafa ending, borgernar braustst þú nidur, þeirra minning hefir fyrerfarest med þeim.

8. Enn Drottenn varer eylíflega, hann hefir sinn stól tilbúed til dómsins.

9. Og hann mun heimskringluna retteiega dæma, og fólkenu rettelega dæma, og fólkenu rettelega stiorna.

10. Og Drottinn er verndan hins fátæka, og verndan í neydenne.

11. Þar fyrer treysta þeir á þig sem þitt nafn þeckia, þviad þú yfergefur eigi, Drottinn, þá sem þín leita.

12. Lofed Drottinn þann er til Zion bygger, kunngered medal fólksins hans verk.

13. Þviad hann þecker og spyr epter þeirra blóde, hann forgleymer eigi kalle þeirra hinna fátæku.

14. Vert mer nádugur Drottinn! lít þú á eymd mína medal óvinanna, þú sem mig upphefur út af daudans dyrum.

15. Uppá þad eg frammtele allann þinn prís í borgarhlidum dotturennar Zíon, so þad eg gladur se yfer þínu hiálpræde.

16. Hiner heidnu eru nidur sócktir í grafernar, þær ed þeir høfdu tilbúed, þeirra fótur er í netenu fangenn, sem þeir uppegndu.

17. Þannenn þeckest þad, ad Drottinn lætur rett ske, ad hinn ógudhrædde er fiøtradur í verkum sinna handa, fyrer orded, Sela.

18. O! ad þeir ógudlegu mættu snúast til helvitis, og aller þeir heidingiar sem Gude forgleyma.

19. Þviad ei mun hann med øllu forgleyma hinum fátæka, og vonenn hins volada mun eigi glatast æfenlega.

20. Statt upp Drottinn! so þad madurenn verde eigi yfersterkare, láttu alla heidingia dæmast fyrer þer.

21. Gef þeim, Drottinn! einn meistara, so þad hiner heidnu medkenne þad, ad þeir eru menn, Sela.

## 10. Psalmur.

1. Drottinn! þvi gengur þú so fiarlægt? og geymer þig á hørmungar tímanum?

2. A medan hinn ógudlege fremur dramb-seme, þá hlytur hinn fáráde ad lída, þeir hallda tilsamans, og hugsa vondslegar uppáfyndingar.

3. Þviad hinn ógudlege hrósar ser í sinne mótþróan, og hinn agiarne blessar sig, og lastar Drottinn.

4. Hinn ógudlege er so ofurbádugur og reidur, ad hann hirder um engann, í øllum sínum þonkum virder hann ad ei se Gud,

5. Sinne idiu helldur hann ætíd framm, þíner dómar eru hønum miøg fiarlager, hann breyter tráslydlega vid alla sína óvine.

6. Hann seiger í sínu hiarta alldrei verd eg kollkastadur, æ og æ mun þad hedan í frá háskalaust vera.

7. Hans munnur er fullur bølvanar, falskleika og svíkrædis, hans tunga kemur mædu og erfide af stad.

8. Hann umsitur í gørdunum, hann drepur þá saklausu leynelega, hans augu athuga þann fátæka.

9. Hann umsitur í leyne, so sem Leon í bælenu, hann umsitur hinn fátæka ad grípa hann, og hann

grípur hann, þá ed hann dregur hann í sitt net.

10. Hann melur í sundur, nidur þricker og hrinder þeim fátæka til jardar med ofríke.

11. Hann seiger í sínu hiarta: Gud hefir forgleymt því, hann hefir byrgt sitt andlit, og hann mun þad alldrei framar siá.

12. Rís upp Drottinn Gud! upphef þína hønd, forgleym eigi þeim fátæku.

13. Hvar fyrer skal hinn ógudlege lasta Gud, og seigia í sínu hiarta: eigi skeyter þú þar um?

14. Þu ser vel, því ad þú skodar eymd og armædu, þad stendur í þínum høndum, hiner fátæku bífala þad þer, þú ert hiálparenn faudurlausra.

15. J sundurbriot þú armlegg hins ógudlega, og leita þú epter þvi illa, þá mun hans ógudlegt athæfe alldrei verda fundid.

16. Drottinn er kongur æfíd og ad eylífu, hiner heidnu munu fyrerfarast af hans lande.

17. Gyrnd þeirra fátæku heyrer þú Drottenn, þeirra hiarta veit vissulega ad þitt eyra hyggur þar ad.

18 So ad þú gerer rett hinum fødurlausa og fátæka, ad manneskiann tráffe eigi framar (sem er) af jørdunne.

## 11. Psalmur.

Psalmur Davids, ad syngia fyrer.

1. Eg treyste á Drottenn, hvernenn seiged þer þá minne sálu, þad hún skule fliúga sem fugl uppá ydar fiøll?

2. Þviad siá þú! hiner ógudlegu spanna bogann, og leggia sínar ørfar á streing, ad þeir heimuglega skiote hina frómu þar med.

3. Þviad þeir um koll køstudu grundvøllenum, hveru skal sá rettláte til vegar koma?

4. Drottinn er í sínu heiløgu mustere, á himnum er stóll Drottins, hans augu siá þar uppá, hans augahvarmar reyna mannanna børn.

5. Drottinn hann reyner hinn rettláta, hans sálu ad hatre hefir hinn ógudlega, og þá sem giarnan eru þverúdleger.

6. Hann mun rigna láta yfer hina ógudlegu leiptran, ellde og brennesteine, og stormvedred mun hann þeim ad verdlaunum gefa.

7. Drottinn er rettlátur, og elskar rettlæted, þar fyrer, ad þeirra andlit lítur á þad, hvad rettferdugt er.

## 12. Psalmur.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia uppá átta streinge.

2. Hiálpa þú Drottenn! þviad hiner heiløgu eru fækkader, og hiner trúudu eru fáer medal mannanna barna.

3. Einn talar vid annann fáfeingelega hlute, og smiadrar, og kenner út af tvøfølldu hiarta.

4. Drottinn villde eydeleggia alla smiadran, og þeirra tungur sem stór ord tala.

5. Þeir ed þad seigia: vor tunga skal yfer rádenn hafa, oss ber ad tala, hver er vor yferherra?

6. Med þvi þá, ad þeir voludu eydeleggiast, og fátæker andvarpa, vil eg upprísa, seger Drottinn, eg vil eitt hiálpræde veita, so menn skule alldiarflega læra.

7. Mæled Drottins er eitt hreint mál, so sem klárad silfur í deiglumó, siøsinnum reynt.

8. Þú Drottinn! vardveit þá, og vardveit oss frá þessare kynslód eylíflega.

9. Þvi allstadar verdur fullt af þeim ógudlegu, hvar ed slíker ónyter drottna medal folkſins.

## 13. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

2. Drottinn! hversu lenge villt þú so olldungis gleyma mer? hversu lenge þá hylur þú þitt andlite fyrer mer?

3. Hversu lenge þá skal eg vera sorgande í minne sálu? og ángra mig so í mínu hiarta daglegana? hversu lenge skal minn óvinur uppheſia sig upp yfer mig?

4. Siá þú þar til, og bænheyr mig, Drottinn minn Gud! upplys þú mín augu, so eg sofne eigi í daudanum.

5. So ad minn óvinur hælest eigi um þad, ad hann se mer máttugre ordenn, og þeir sem mer mótstanda, meige sig eigi af þvi gledia, ad eg ligge fallenn.

6. Enn eg treyste þar uppá, ad þú ert so miskunsamur; mitt hiarta gledur sig, þad þú hiálpar so giarnan.

7. Eg vil syngia Drottne, þviad hann gerer so vel til mín.

## 14. Psalmur.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia.

1. Hiner fávísu seigia í sínum hiørtum, þar er engenn Gud, þeir duga ecke, og eru andstyggd í sinne breytne, þar er engenn sá ed godt gerer.

2. Drottinn hann lytur af himnenum ofan á mannanna børn, so ad hann siáe, hvert nockur er vís, og leitar epter Gude.

3. Enn aller þeir voru fráſnúner, og aller saman, hver med ødrum, ónyter ordner, þar er engenn sá ed godt gerer, og eigi einn.

4. Hvert vill engenn af þeim illgerda mannanna merkia þad? þeir ed mitt folk uppeta, ad þeir ali siálfa sig, enn Drottinn ákalla þeir eigi.

5. Þar ugga þeir um sig, enn Gud er hiá kynslód rettlátra.

6. Þer forsmáed rádenn hins volada, enn Gud er hans trúnadartraust.

7. Eg villda þad hiálpræded út af Zion kæme yfer Israel, og þad Drottinn frelsade sitt herteknа fólk, þá munde Jacob fagna, og Israel vera gladur.

## 15. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Drottinn! hver mun búa' í þinne tialldbúd? hver mun hvílast uppá þínu heiløgu fialle?

2. Hann sá ed framgengur flecklaus, og gerer rett, og talar sannleikann út af hiarta.

3. Hver ed eigi bakmæler med sinne tungu, og náunga sínum ecke illt gerer, og leggur eigi sínum náunga neitt lastlegt til.

4. Hver ed einskis acktar þá ógudlegu, enn í heidre hefir hinn gudhrædda, hver hann sver sínum náunga, og helldur þad.

5. Hver hann gefur eigi fe sitt út uppá okur, og tekur eigi mútu yfer þann hinn saklausa, hver ed þetta gerer, honum mun vel vegna æfinlega.

## 16. Psalmur.

Eitt gyllene klenodium Davids.

1. Varveit mig Gud! þviad eg treyste uppá þig.

2. Eg sagde til Drottins: þú ert þó Drottinn! eg hlyt ad lída fyrer þínar saker.

3. Fyrer þá heiløgu sem á jørdunne eru, og fyrer þá dyrdlegu, á þeim hefi eg alla mína þocknan.

4. Enn þeir hiner adrer, sem epter hinum ødrum skunda, munu miked hiartans angur hafa, eg vil eigi offra þeirra dryckiar offre med blódenu, eigi helldur taka þeirra nafn mer í munn.

5. Enn Drottinn er mitt gots, og mitt hlutskipte, þú helldur vid magt mínum erfda hluta.

6. Hlutur fell mer yfer þad lyfte-lega, og ein væn arfleyfd er ordenn mín.

7. Eg lofa Drottinn, sem mer gaf rád, líka typta mig einnenn mín nyru á nætur.

8. Alla tíma hefe eg Drottinn mer fyrer augum, þvi hann er mer til hægre handar, þar fyrer mun eg vel standa.

9. Þar fyrer gledur sig mitt hiarta, og mín dyrd er gladvær, og mitt holld mun uggalaust liggia.

10. Þvíad ei munt þú mína ønd yfergefa í helvíte, og ei leifa ad þinn heilage rotne.

11. Þú gerder mer kunnann vegenn til líffins, fyrer þer er gnogt fagnadarins, og gledelegt líf til þinnar hægre handar eylífle-ana.

## 17. Psalmur.

### Ein bæn Davids.

1. Drottinn! bænheyr þú rett-vísena, merk mitt kall, hygg ad minne bæn, sem eigi geingur ut af følskum munne.

2. Hlutast þú til míns málefn-is, og gef gætur ad rettindunum.

3. Þú reyner mitt hiarta, og vitiar þess á nætturtarþelenu, og hreinsar mig, og finnur ecke, eg einsetti mer, ad minn munnur skylde eigi af-vikia.

4. Eg varþveite mig í ordenu þinna vara, fyrer mannanna verk-um, á veige íaurdingians.

5. Halltu minne gaungu í þín-um vegum, so ad mín fótspor skrid-ne eigi.

6. Eg ákalla þig, ad þú Gud bæn-heyrer mig, hneig þín eyru til mín, og heyr mitt tal.

7. Audsyn þína furdanlega góð-gyrne, þú hiálpare þeirra sem á þig treysta, ígegn þeim sem setia sig upp imóte þinne hægre hende.

8. Vardveit þú mig so sem siá-alldred augans, under skugga væn-gia þinna vernda þú mig.

9. Fyrer þeim ógudlegu sem ey-da mer, fyrer mínum óvinum, sem skunda epter minne sálu allt um-kring.

10. Þeirra feitingiar hallda til-samans, med sínum munne tala þeir drambsamlega.

11. Hvar ed ver gaungum, þá umkringia þeir oss, sín augu setia þeir þangad, þad þeir sláe oss til jardar.

12. So sem annad Leon sem gyrnest brádena, líka sem Leons hvølpur sem situr í fylsnum.

13. Tak þig upp Drottinn! yfer-fall hann, og nidurlæg hann, frelsa þú med sverde þínu sálu mína frá þeim ógudlegu.

14. Frá fólke þinnar handar, Drottinn! frá fólke þessarar ver-alldar, þeir ed sitt hlutskipte hafa í þeirra lífe, hverra kvid ed þú fyll-er med þínum aude, þeir ed hafa nógann fiølda barna, og láta sínar epterleyfar epter hiá sínum nið-um.

15. Enn eg vil skoda þitt auglit í rettlæte, eg mun saddur verda, nær eg vakna epter þinne mind.

## 18. Psalmur.

Einn Psalmur Davids, Drottins þiónustumanns, til ad syngia fyr-er, hver ed talade fyrer Drottne

ordenn, þessa lofkvædis, í þann tí
ma þá ed Drottinn hafde frelsad
hann af höndum sinna óvina, og af
hende Sauls, og sagde;
1. 2. Hiartkiærann hefi eg þig
Drottinn, minn styrkleike!
3. Drottinn mitt biarg, mitt
vige, minn frelsare, minn Gud,
mitt traust á hvern eg treyste! minn
skiolldur og horn míns hiálpræðis,
og min verndan!
4. Eg vil lofa Drottinn, og á-
kalla hann, þá mun eg frelsadur
verda í frá minum óvinum.
5. Þviad mig hafa spennt bönd-
enn daudans, og belials læker ha-
fa skelft mig.
6. Böndenn helvítis hafa um-
kringt mig, og daudans snörur yf-
erbugudu mig.
7. Nær eg kveliunst þá ákalla eg
Drottinn, og hrópa til Guds míns,
þá bænheyrer hann mína raust af
sinu mustere, og mitt ákall kemur
fyrer hann til hans eyrna.
8. Jördenn bifade og hristest, og
grundvellerner fiallanna hrærdu sig
og bifudu, þá ed hann reiddest.
9. Reykur gaus af hans nösum,
og forterande elldur af hans mun-
ne, svo ad þar leiptrade af.
10. Hann beigde himnana, og
ste ofann, og myrkur varunder hans
fótum.
11. Og hann fór upp á Cherub,
og flaug, hann sveimade á vindsins
vængium.
12. Hans tialld, í kringum hann
var myrkt, og svert þyckt ský, þar sem
hann var inne hulenn.
13. Ut af þeim glampanum fyr-
er hönum tvístrudust skyenn, med
hagle og leiptringum?
14. Og Drottinn dunade í himn-
enum, og sá hinn hæsste gaf út
sína þrumu med hagle og leipt-
ring.
15. Hann skaut sínum geislum
út, og í sundur dreifde þeim, hann
let verda miklar elldingar, og
hrædde þá.
16. Þá sáust uppsprettuupptter
vatnanna, og grundveller jardar-
ennar opnudu sig, Drottinn! af
þinne straffan, ut af anda þinna
nasa og blæstre.
17. Hann sende út af hædenne,
og sockte mig, og dró mig burt úr
miklum vötnum.
18. Hann frelsade mig frá sterk-
um óvinum mínum, frá þeim ed
mig hötudu, hverer mer voru megt-
ugre.
19. Þeir ed mig ofurlida báru,
á minne hörmungar tíd, og Drott-
inn var mitt huggunar-traust.
20. Og hann leidde mig út á
vídann völl, hann rickte mer þar
út, þvi hann hafde lyst til mín.
21. Drottinn gerer vel vid mig,
epter minu rettlæte, hann umbun-
ar mer epter hreinferdugleika min-
na handa.
22. Þviad eg helld vegu Drott-
ins, og breyte eigi ógudlega á móte
mínum Gude.
23. Þviad alla hans dóma hefe
eg mer fyrer siónum, og hans bod-
ordum fleyge eg eigi í burt frá
mer.
24. Helldur em eg án flecks fyrer
hönum, og bívara mig frá synd-
enne.
25. Þar fyrer endurgelldur mer
Drottinn epter mínu rettlæte, ept-
er hreinferdugleika minna handa
fyrer hans auglite.
26. Hiá heilögum ert þú heil-
agur, og hiá frómun ert þú fróm-
ur.
27. Og hiá hreinferdugum ert
þú hreinferdugur, og hiá rang-
snúnum ertu rangsnúenn.
28. Þviad þú hiálpar þvi auma

fólke, og nidurþricker þeim háu augum.

29. Þviad þú upplyser mitt liós, Drottinn, Gud min! hann gerer mitt mirkur ad birtu.

30. Þviad med þer fæ eg ſtrídsfólked vid velle lagt, og med mínum Gude yfer múrenn ſtocked.

31. Guds veger eru fyrer utann lyte, ordrædur Drottins eru gagnhreinar, hann er einn hlífdar ſkiolldur allra þeirra ſem á hann treyſta.

32. Þvíad hvar er einn Gud utann Drottinn? eda einn frelſare utan vor Gud?

33. Gud bryniar mig med krapte, og gerer mína vegu flecklauſa.

34. Hann gerer mínar fætur álika ſem hiartarins, og ſetur mig uppá mína hæd.

35. Hann kenner mínum høndum ad beriaſt, og lærer mína armlegge ſtálbogann ad ſpanna.

36. Og þú gefur mer ſkiøldenn þíns hiálprædis, og þín hægre hønd ſtirker mig, og nær ed þú audmiker mig þá miklar þú mig.

37. Þú gerder under mer gangrúm, ſo þad míner øcklalider ſkridna eigi.

38. Eg vil ſækia epter mínum óvinum, og handtaka þá, og ei aptur ſnúa, fyrr enn þad eg hefe fyrerkomed þeim.

39. Eg vil þá nidurſlá, og þeir munu mer eigi mótſtødu veita, þeir hlióta under mínar fætur ad falla.

40. Þú kannt med krapte ad herklæda mig til bardaga, þú kannt under mig ad leggia alla þá ſem ſetia ſig upp á móte mer.

41. Þú gefur mer mína óvine á flótta, ad eg mínum haturs-mønnum í ſundur dreife.

42. Þeir kalla, og þar er ſá enginn þeim hiálpe, til Drottins, enn hann andſvarar þeim eigi.

43. Eg vil melia þá ſo ſem molldardupt fyrer vinde, eg vil útſkúfa þeim líka ſem ſaurendum á ſtrætum.

44. Þú hiálpar mer í frá þvi þráttunarſama fólke, og gerer mig ad høfde á medal heidinna þióda, þad folk hvert eg þeckta eigi, þad þióner mer.

45. Þad hlyder mer med hlydugum eyrum, já! þad bráſt þeim framande børnum á móte mer.

46. Hin annarlegu børn þau hiadna nidur, og fara fálmande í ſínum bøndum.

47. Drottinn hann lifer, og lofadur ſe frelſare minn, og Gud míns hiálprædis ſkal upphafenn verda.

48. Sá Gud er mer gefur hefndena, og fólked under mig leggur.

49. Sá ed frelſar mig frá óvinum mínum, og forhefir mig í burt frá þeim ſem ſettu ſig upp imóte mer, þú hiálpar mer í frá þeim hinum mótgerdaſømu.

50. Þar fyrer vil eg, Drottinn! þer þacker gera á medal heidinna þióda, og loſſyngia þínu nafne.

51. Sá ed audſyner miked hiálpræde ſínum konunge, og gerer vel vid ſinn ſmurda, David og hans afkvæme eylíflega.

## 19. Pſalmur.

Pſalmur Davids fyrer ad ſyngia.

1. 2. Himnarner frammtelia Guds dírd, og feſtingenn kunngerer verk hans handa.

3. Eirn dagurenn ſeiger þad ødrum, og hver nóttenn kunngerer þad annare.

4. Þar er ecke tungumál til, edur þær munnrædur, hvar ed þeirra radder heyraſt eigi.

5. Um øll lønd er þeirra mæle-

þráður útgengenn, og þeirra mál allt til heimsins enda, sólunne hefir hann herberge sett í þeim sömu.

6. Og hún gengur út, likasem einn brúdgume út af sínu herberge, og gledur sig sem ein hetia til ad hlaupa veigenn.

7. Á einum enda himensins kemur hún upp, og rennur so umkring til hins sama enda, og ecke skylest fyrer hennar hita.

8. Lögmáled Drottins er flecklaust, og endurnærer sálena. Vitnisbúrdurenn Drottins stendur fastur, og gefur vísdom skilningslitlum.

9. Skipaner Drottins eru rettferdugar, og gledia hiartad, bodordinn Drottins eru skiær, og uppbyrta augunn.

10. Otte Drottins er hreinferdugur og blífur eylíflegana, Drottins rettur er sannur, allur saman rettferdugur.

11. Hann er kostulegre enn gull og miked klárasta gull, hann er sætare enn húnáng og hunángsseimur.

12. Einnenn verdur þinn þión fyrer hann áminntur, og hver ed vardveiter hann, sá hefir mikell verdlaun.

13. Hver kann ad formerkia hversu opt hann misgerer? fyrergef þú mer minn heimuglegann brest!

14. Vardveit einnenn þinn þión í frá þeim dramblátu, so ad þeir drottne ei yfer mer, þá mun eg flecklaus verda, og saklaus af mikellre misgerd.

15. Lát þer þocknast ordrædur míns muns, og máled míns hiarta fyrer þer. Drottinn minn frelsare, og minn endurlausnare!

## 20. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

2. Drottinn bænheyre þig í neydenne, nafned Guds Jacobs þad vernde þig.

3. Hann sende þer hiálp af helgedómenum, og styrke þig út af Zion.

4. Minnugur se hann alls þíns matar offurs, og þín brennefórn hliote feit ad vera, Sela.

5. Hann gefe þer þína hiartans villd, og uppfylle allann þinn ásetning.

6. Ver hrósum oss, ad þú hiálpar oss, og í nafne Guds vors setium ver upp strídsmerkenn, Drottinn uppfylle allar þínar bæner.

7. Nú formerke eg, ad Drottinn hiálpar sínum hinum smurda, og bænheyrer hann í sínum heilögum himne, hans hægre hönd hiálpar kröptuglega.

8. Þeir hiner adrer treysta uppá vagna og hesta, enn ver hugsum uppá nafned Drottins Guds vors.

9. Þeir eru nidurslegner og fallner, enn ver stöndum retter.

10. Drottinn hiálpa þú! kongurenn heyre oss, nær ver hrópum.

## 21. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

2. Drottinn! kongurenn gledur sig í þínum krapte, og hvad hardla gladur er hann út af þínu hiálpræde?

3. Þú gefur hönum sína hiartans villd, og syniar eigi þess, hvad hans munnur beidest, Sela.

4. Þviad þú yferheller hann med velsemdar blessan, koronuna af gulle setur þú uppá hans höfud.

5. Hann bidur þig um líf, og þú gefur hönum langa lífdaga um alldur og ad eylífu.

6. Hann hefir stora dyrd af þínu

hiálpræde, þú leggur hønum vegsemd og prýde til.

7. Þviad þú setur hann til blessunar eylíflega, þú gledur hann med føgnude þíns andlits.

8. Þviad konungurenn hann voriar uppá Drottinn, og fyrer gædsku hins hærstá mun hann ståðugur standa.

9. Þín hønd mun finna alla þí na óvine, þín hin hægre hønd mun finna þá ed þig hata.

10. Þú munt gera þá líka sem elldsins ofn, þá þú lítur þar til, Drottinn mun uppsvelgia þá í sinne reide, elldurenn mun uppeta þá.

11. Þeirrá ávøxt muntu tortínast láta af jørdu, og þeirra sæde í burt frá mannanna børnum,

12. Þviad þeir þeinktu þer illt ád gera, og samsettu þær rádagerder, hverár þeir feingu eigi frammkvæmt.

13. Þviád þú munt gerá þá ad ørlum, med þínum streing muntu til hæfes mida móte þeirra augsyn.

14. Drottinn! upp hef þig í þínum krapte, þá vilum ver syngia, og lofa þína magt.

## 22. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngiá, út af hindenne, sem árla vard veidd.

1. 2. Gud minn! Gud minn! hvar fyrer hefir þú yfergefed mig? eg veina, enn mín hiálp er fiarlæg.

3. Gud minn! á degenum kallá eg, og þú gefur eigi andsvar, og á nóttenne þeige eg eigi einnenn helldur.

4. Enn þú ert heilagur, þú sem býr medal lofgerdar Israels.

5. Vorer fedur vonudu á þig, og þá er þeir vonudu, þá hiálpader þú þeim út.

6. Til þín kølludu þeir, og urdu frelsader, þeir vonudu á þig, og urdu eigi til skammar.

7. Enn eg em madkur, enn ei madur, spott mannanna, og fyrerlitning folksins.

8. Aller þeir er mig siá, hæda ad mer, opna sinn munn, og skaka høfudinn.

9. Klage hann þad fyrer Drottne, hiálpe hann hønum, og kann frelse hann, hafe hann lyst til hans.

10. Þviad þú útleidder mig af minnar modur kvide, þú varst mitt hiálpartraust þá ed eg vár enn nú á minnar modur brióstum.

11. Til þín er mer kastad í frá módurkvide, þú ert minn Gud allt sídan í frá minnar módurkvide.

12. Vert eigi fiærre mer, þviad angistenn er nálæg, af þvi her er sá eingenn ed hiálpar.

13. Stór naut umgyrdtu mig, feiter uxar umkringdu mig.

14. Þeirrá gin opna þeir upp á móte mer, líka sem greniandá og gleffsanda Leon.

15. So sem annad vatn em eg úthelltur, og øll mín bein hafa sundurskilest, mitt hiarta er í mínum líkama sem brádnad vax.

16. Míner kraptar eru uppþornader, sem ønnur skurm, og mín tunga loder vid mína góma, og þú leggur mig í daudans dúpt.

17. Þviad hundar hafa umkringt mig, og hópur þeirra ómilldu hafa setst um mig, mínar hendur og mínar fætur hafa þeir ígegnum grafed.

18. Øll mín bein mátte eg telia, enn þeir hórfa á þad, og siá sína villd á mer.

19. Þeir skiptu med ser mínum klædum, og um mitt fat vørpudu þeir hlutskipte.

20. Enn þú, Drottinn! vert ei-

gi fiarlægur, minn styrkur, skunda þú mer til hiálpar.

21. Frelsa þú sál mína í frá sverdenu og mína þá hina einsömu í frá hundunum.

22. Frelsa þú mig út af gine Leonsins, og hiálpa mer í burt frá einhyrningenum.

23. Þitt nafn vil eg predika mínum brædrum, í samkundunne vil eg þig vegsama.

24. Lofed Drottinn þer sem óttest hann, allt sæde Jacobs dyrdke hann, og allt Israels sæde óttest hann.

25. Þviad hann hefir hverke forsmád ne fyrerlited eymd hins fátæka, og eigi sitt andlite birgt fyrer hönum, og þá ed hann kallade til hans, þá heyrde hann þad.

26. Þig vil eg lofa í þeirre hinne miklu samkundu, mín heit vil eg giallda í augsyn þeirra, sem hann óttast.

27. Hiner voludu skulu neyta, so ad þeir sadder verde, og þeir sem ad Drottne leita, munu lófa hann, ydar hiörtu skulu lifa ad eylífu.

28. Þar uppá munu þeinkia allar endemerkur veralldarennar, ad snúa ser til Drottins, og fyrer hans augsyn tilbidia allar kynkvísler heidinna þióda.

29. Þviad Drottinn hefir eitt ríke, og hann drottnar á medal heidinna þióda.

30. Aller feitingiar á jördu munu neyta og tilbidia, fyrer hönum munu kne beigia aller þeir sem liggia í duptenu, og þeir ed aumlega lifa.

31. Hann mun eitt sæde hafa, sem hönum þiónar, af Drottne mun þad kunngert verda til barnabarnanna.

32. Þeir munu kóma, og hans rettvíse predika, þvi fólke sem fædt verdur, ad hann gerer þad.

## 23. Psálmur.

Psalmur Davids.

1. Drottinn er minn hyrder, mig mun eigi neitt bresta.

2. Hann fódrar mig í grænum haga, og leider mig framm ad ferskum vötnum.

3. Hann endurnærer sál mína, hann leider mig á rettann veg, fyrer síns nafns saker.

4. Og þott ad eg ráfade í mirkum dal þá hrædest eg þó enga ólukku, þviad þú ert hiá mer, þinn vondur og stafur hugsvala mer.

5. Þú tilbyr matbord fyrer mínne sálu, ígegn óvinum, þú smyr mitt höfud med vidsmiöre, og skeinker fullt á fyrer mig.

6. Gædska og miskunseme mun mer epterfylgia mína lífdaga, og eg mun búa í húse Drottins æfenlega.

## 24. Psalmur.

Einn Psalmur Davids.

1. Jordenn hún er Drottins, og hvad í henne er, jardarkringlann, og hvad þar á byr.

2. Þviad hann hefir grundvallad hana yfer siáfarhafenu, og yfer vötnunum tilbúed hana.

3. Hver mun uppganga á fialled Drottins? og hver mun standa í hans heilaga stad?

4. Sá ed hefir meinlausar hendur, og hann sem er hreinhiartadur, sá ed eigi hefir lysting á hegomlegum lærdome, og hvered sver eigi svikssamlega.

5. Sá hinn same hann mun medtaka blessun af Drottne, og rettlæte af Gude síns hiálpræðis.

6. Þetta er sú kynslód hver ed

ad honum spyr, hún hver ed leitar þíns andlitis Jacob, Sela.

7. Láted portinn vera víd, og dyrnar háfar í verølldenne, so þad kongur dyrdarennar inngange!

8. Hver er sá kongur dyrdarennar? þad er Drottinn, sterkur og volldugur, Drottinn megtugur í stríde.

9. Láted portenn verda víd, og dyrnar háfar í verølldenne, so þad kongur dyrdarennar inngange.

10. Hver er sá kongur dyrdarennar? þad er Drottinn Zebaoth, hann er kongur dyrdarennar, Sela.

## 25. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Til þín Drottinn! forlenger mig.

2. Minn Gud! á þig treyste eg, lát mig eigi til skammar verda, so ad óviner míner glede sig eigi yfer mer.

3. Þviad engenn verdur sá til skammar sem þín bídur, enn til skammar hlióta ad verda þeir hiner fánytu forsmánarar.

4. Drottinn! vísa þú mer þína vegu, og lær mig þína fótstigu.

5. Leid þú mig í þínum sannleika, og lær mig, þviad þú ert Gud, sem mer hiálpar, daglegana vona eg á þig.

6. Minnstu Drottinn! þinna miskunsemda, og þinnar gædsku sem vered hefir frá upphafi veralldarennar.

7. Minnst þú eigi á synder minnar æsku, og á mínar yfertrodslur, hell ur minnstu mín epter miskunsæme þinne, fyrer þinnar gódgyrndar saker.

8. Drottenn er gódur og fromur, þar fyrer leidretter hann þina syndugu á vegenum.

9. Hann leider hina fárádu rett, og lærer þá voludu sína vegu.

10. Aller veger Drottins eru eigi utan gædska og sannleikur, þeim ed hans sáttmála og vitnisburde geyma.

11. Fyrer þíns nafns saker, Drottinn! vertu líknsamur synd minne, hver ed er mikel.

12. Hver er sá hann óttast Drottinn? þeim hinum sama mun hann vísa þann besta veg.

13. Sála hans mun búa í þvi góda, og hans sæde mun landed eignast.

14. Leynder dómar Drottins eru medal þeirra sem hann óttast, og sinn sáttmála lætur hann þ[.] vita.

15. Mín augu líta jafnann til Drottins, þvi hann mun mína fætur útleida af netenu.

16. Snú þer til mín, og vert mer miskunsamur, þviad eg em einmana og fárádur.

17. Sorg míns hiarta er mikel, leid þú mig burt úr mínum naudum.

18. Líttu á mína eymd og armædu, og fyrergef þú mer allar mínar synder.

19. Siá þú á þad, míner óviner eru so marger, og þeir hata mig út af mótþróanlegleika.

20. Vardveit þú mína sálu, og frelsa mig, lát mig eigi til skammar verda, þviad eg treyste á þig.

21. Einfalldleike og rettlæte vardveite mig, þviad þín bíd eg.

22. Gud! frelsa þú Israel, af øllum sínum anaudum.

## 26. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Lát þú mig rett ske, Drottinn! þviad eg em saklaus, eg vona uppá Drottinn, þar fyrer mun eg eigi falla.

2. Reyn þú mig, Drottinn! og rannsaka mig, hreinsa mín nyru og mitt hiarta.

3. Þvíad þín miskun er fyrer mínum augum, og eg geyng í þínum sannleik.

4. Eg sit eigi hiá þeim hegoma mønnum, og ecke samlag hefi eg vid hina fláradu.

5. Eg hata samkundu þeirra hinna illgiørnu, og sit eigi hiá ógudhrædduм.

6. Eg þvæ mínar hendur med sakleyse, og helld mig, Drottinn! til þíns altaris.

7. Þar sem menn heyra raustena þacklætisins, og þar menn predika af øllum þínum dásemdum.

8. Drottinn! eg elska stadinn þíns húss, og þann stad, þar ed þín dyrd byr.

9. Svipt eigi sálu minne burt med þeim syndugu, og eigi helldur lífe mínu medur þeim blódþyrstu

10. Þeir sem umgangast med illu underferle, og þeir þiggia giarnan fegáfur.

11 Enn eg geing í sakleyse, frelsa þú mig og vert mer miskunsamur.

12. Minn fótur geingur rettelega: þig vil eg lofa, Drottinn! í samkundunum.

## 27. Psalmur,

Psalmur Davids.

1. Drottinn er mitt liós og minn heilsugiafare, fyrer hverum skal eg óttast? Drottinn hann er minn lífsins kraptur, fyrer hverum skyllde eg hræddur vera?

2. Þar fyrer, þó ad hiner hreckvísu, míner mótstødumenn og óvin er vile til vid mig, til þess ad eta mitt holld, þá munu þeir þó ásteyta sig og nidur hrynia.

3. Nær ad herenn setur sig upp á móte mer, þá hløskrar ei ad helldur mínu hiarta: nær ad stríd hefst upp mer á móte, þá treyste eg á hann.

4. Eins þá bid eg af Drottne, þad sama þrægе eg giarnann, þad, ad eg mætta blífa í húse Drottins mína lífdaga, til ad skoda þá ágætu þiónustugerd Drottins Guds, og ad vitia hans musteris.

5. Þvíad hann skyler mer í sinne tialldbúd á þeim illa tímanum; hann felur mig leynelega í sinne tialldbud, og upphefur mig uppá berged.

6. Og nú mun hann upphefia mitt høfud yfer mína óvine, sem í kringum mig eru, þá vil eg og í hans tialldbud lofgerdenne offra, og vil syngia og lof segia Drottne.

7. Heyr þú Drottinn! mína raust, nær ed eg kalla, miskuna þú mer og bænheyr mig!

8. Mitt hiarta þad setur þer þín ord fyrer, þer skulud míns andlitis leita, þar fyrer leita eg einninn, Drottinn! þíns andlitis.

9. Byrg eigi þitt andlit fyrer mer, og í burt rek eigi þræl þinn í reide þinne, þvi þú ert mín hialp, yfergef þú mig eigi, og tak eigi þína hønd frá mer, Gud minn frelsare!

10. Þvíad fader minn og móder mín þau yfergáfu mig, enn Drottinn annadest mig.

11. Vísa þú mer, Drottinn! þinn veg, og leid mig á rettann gøtustíg, vegna minna óvina.

12. Ofurgef mig eigi í villd minna óvina, þvíad falsvottar standa á móte mer, og gera mer rangt til án blygdunar.

13. Enn eg true þad þó, ad eg mune siá gødsemd Drottins, á jørdu lifande (manna.)

14. Bíd þú Drottins, vert hraust-ur, og óefadur, og bíd Drottins!

## 28. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Nær eg kalla til þín, Drottinn minn stirkur! þá þeig eigi vid mer, so ad eg verde eigi, ef ad þú þeiger, líkur þeim, sem ofann fara í grøfena.

2. Heyr þú rødd minnar grát-beidne, nær eg kalla til þín, þá ed eg upphef mínar hendur til þíns heilaga chors.

3. Drag mig eigi í burt á medal þeirra ógudlegu, og á medal ill-virkianna, þeir ed sáltsamlega mæla vid sinn náunga, enn hafa hid vonda í hiartanu.

4. Gef þeim epter þeirra tilverk-nade, og epter þeirra illskusamlegre breytne, gef þeim epter handa-verkum þeirra, bitala þeim, hvad þeir forþenad hafa.

5. Þviad þeir vilia eigi akta verkenn Drottins, og eigi helldur hans handaverk, þar fyrer mun hann nidur brióta þá, og eigi upp-byggia þá.

6. Lofadur se Drottinn, þvi hann hefir heyrt rødd minnar grátbeidne

7. Drottinn er minn stirkleikur, og minn skiølldur, á hann vonar mitt hiarta, og eg em hólpenn, og mitt hiarta er gladvært, og med mínum loffsøng vil eg hønum þakk-er gera.

8. Drottinn er stirkleikur þeirra; hann er sá stirkleikurenn, sem ad hiálpar sínum smurda.

9. Hiálpa þú þinu fólke, og blessa þina arfleifd, og gef þeim fædslu, og upphef þá eylíflega.

## 29. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Gefed hingad Drottne, þer vollduger, færed hingad Drottne dyrdena og stirkleikann.

2. Færed Drottne dyrdena hans nafns, tilbided Drottinn í heilagre prýde.

3. Raustenn Drottins geingur yfer vøtnenn, Gud dyrdarennar lætur reidarþrumurnar slá, Drottinn yfer miklum vøtnum.

4. Rødd Drottins geingur med krapte, rødd Drottins fer vegsam-lega.

5. Raustenn Drottins hún í sund-urbrytur cedrusvidenn: Drottinn hann í sundurbrytur cedrustren í Libanon.

6. Og lætur þau støkka upp sem annann kálf, Libanon og Sirion sem ungann einhyrning.

7. Raustenn Drottins hún høgg-ur sem elldsloge:

8. Raustenn Drottins hrærer eydemørkena, raustenn Drottins hrærer eydemørkena Kades.

9. Raustenn Drottins hrærer hindurnar, og sneyder skógana, og í hans mustere mun hønum hver sem einn dyrd seigia.

10. Drottinn hann situr til ad gera vatnsflóded, og Drottinn hann blífur kongur ad eylífu.

11. Drottinn mun gefa krapt sínu fólke, Drottinn hann mun blessa sitt fólk med fride.

## 30. Psalmur.

Psalmur til ad syngia fyrer, um Davids húsvígslu.

2. Eg prísa þig, Drottinn! þvi-ad þú hefir upphafed mig, og þú lætur eigi mína óvine fagna yfer mer.

3. Drottinn Gud minn! þá eg kallade til þín, þá gerder þú mig heilbrigdann.

4. Þú Drottinn! hefir mína sálu útleidt af helvíte, og þú letst

mig lifa þar ed þiner fóru til helvítis.

5. Þer heilager, synged lof Drottne, þacked hønum, og prísed hans helgedóm.

6. Þvi hans reide varer um augnabragd, og hann hefir lysting til lífsins: um kvølldtímann varer gráturenn, enn ad morgne dags føgnudurenn.

7. Enn eg sagde: þá ed mer geck vel: eg munde alldrei underliggia.

8. Þvi þú Drottinn! veitter stadfestu mínu biarge med þinne þocknan, enn þá ed þú byrgder þitt andlit, gerdest eg skelfdur.

9. Eg vil, Drottinn! kalla til þín, Drottinn vil eg grátbæna.

10. Hver nytsemd er ad mínu blóde, þá eg em daudur? hvert mun molldenn nockud þacka þer, og boda þinn trúleika?

11. Heyr þú, Drottinn! og vertu mer miskunsamur, Drottinn! vertu minn hiálpare.

12. Minne sorgarkløgun hefir þú snúed í dans; þú hefir minn hriggdar seck ísundurslited, og umgyrdt mig med fagnade.

13. So þad mín dyrd synge þer lof, og þagne eigi, Drottinn Gud minn! ad eylífu vil eg þer þacker gera.

## 31. Psalmur.

Psalmur Davids til ad syngia fyrer.

2. A þig, Drottinn! treyste eg, lát mig alldrei til skammar verda, frelsa mig þíns rettlætis vegna.

3. Hneig þitt eyra til mín, flýtlega þá hiálpa þú mer. Vert mer øruggt biarg og víge, so ad þú hiálper mer.

4. Þviad þú ert mitt biarg, og mitt víge, og fyrer þíns nafns sak er þá leid þú mig og styr mer.

5. Utleid þú mig af netenu, sem þeir hafa lagt fyrer mig, þviad þú ert minn styrkur.

6. Í þínar hendur fel eg minn anda, þú hefir frelsad mig, Drottinn! þú trúfaste Gud!

7. Eg hata þá sem hallda út af ónytsamlegum kenningum, enn eg vona á Drottinn.

8. Eg gled mig, og em gladvær yfer þinne miskunseme, þviad þú álítur mína eymd, og þeckir sálu mína í neydenne.

9. Og þú yfergafst mig ei í óvina hendur, þú setter mínar fætur þar þeir hafa nóg rúm.

10. Vertu mer nádugur, Drottinn! þviad eg kvelst, mitt yferbragd er nidur bruned af harme, þar ad auk mín sála og minn kvidur.

11. Þviad mitt líf er ut af hriggdenne ad þrotum komed, og mín áratala af andvarpan. Minn kraptur er nidurfallenn fyrer minna misgerninga saker, og mín bein þau eru máttlaus ordenn.

12. So illa þá geingur mer, ad eg em mikel smán ordenn mínum nágrønnum, og vidbiódur mínum kunningum, þeir ed mig siá úte á strætunum, flyia fyrer mer.

13. Mín er forgleymt í hiartanu, líka sem framlidens, eg em ordenn so sem annad sundurbroted ker.

14. Þviad marger álasa mer illa, so þad hver madur styggar vid mer, þeir bera sín rád tilsamans yfer mer, og þeinkia mig lífe ad svipta.

15. Enn eg vona á þig Drottinn, og seige: þú ert minn Gud!

16. Miner tímar standa í þinne hende, frelsa þú mig af hende óvina minna, og í frá þeim sem offsækia mig.

17. Láttu þitt andlit skína yfer

Þræle þínum, hiálpa þú mer þinnar miskunar vegna.

18. Lát þú mig eigi, Drottenn! til skammar verda, þviad eg ákalla þig: hiner ógudhræddu hliota til skammar og nidurþaggader ad verda í helvíte.

19. Málláuser verda þeir falsfuller munnar, þeir ed hardlega hofmódugt og forsmánarlega tala imóte þeim hinum rettferduga.

20. Hversu mikel er þín gódgyrne, hvera þú hefir geymt þeim sem þig óttast, og veiter þeim sem treysta á þig í mannana auglite!

21. Þú byrger þá heimuglega hiá þer fyrer hvers manns þack, þú felur þá í þinne tialldbúd, fyrer þeim þrætusømum tungum.

22. Lofadúr se Drottinn, þviad hann hefir audsynt mer dásamlega gódgyrne í einum øruggum stad.

23. Þvi eg sagde í minne efasemd, eg em í burtdrifenn frá þínum augum, þó heyrder þú rødd minnar grátbeidne, þá eg kallade til þín.

24. Elsked þer Drottenn aller hans heilager, Drottinn hann verndar þá hina rettrúudu, og endurgelldur þeim ríkuglega sem dramblæted tidka.

25. Vered hrauster og hugdiarfer, þer aller sem Drottins bíded.

## 32. Psálmur.

Undervísun Davids.

1. Sæler eru þeir hverum yfertrodslurnar eru fyrergefnar, þeir hvetra synder ad eru huldar.

2. Sæll er sá madur hverum Drottinn tilreiknar eigi syndena, í hvers anda þad engenn flæd er.

3. Þvi þá eg villde hafa þagad, þá urdu mín bein máttlaus, af minne daglegre veinan.

4. Þviad þín hønd var nótt sem dag þung yfer mer, so ad mín vøkvan upp þornade, so sem á sumre þornar, Sela.

5. Þarfyrer medkenne eg þer mínar synder, og dreg eigi dul á minn misgerning. Eg sagda: já ta vil eg Drottne mínar yfertrodslur, þá fyrergafstu mer þann misverknad minnar syndar, Sela.

6. Þar um munu aller heilager þig bidia, í hagkvæmann tíma, þar fyrer nær ed flóded mikellra vatna þad kemur, þá náer þad hverge til þeirra hinna sømu.

7. Þú ert mitt athvarf, vardveit mig fyrer angist, ad eg frelsadur med øllu gladvær kunne ad prísa þig, Sela.

8. Eg vil undervísa þer, og vísa þer þann veigenn sem þú átt ad ganga, eg vil med mínum augum leida þig.

9. Vered eigi so sem hestar og múlar, í hverum þad engenn skilningur er, hverum menn verda beisl og bitil í munn ad leggia, nær ed þeir vilia eigi til þín.

10. Sá hinn ógudhrædde hefir margar plágur, enn hver ed vonar á Drottinn, hann sama mun miskunseme umkringia.

11. Gleded ydur í Drottne, og vered glader, þer rettláter, og hrósed þaraf aller þer frómer.

## 33. Psálmur.

1. Gleded ydur þer rettláter í Drottne, þeir frómu skulu lofa hann fagurlegana.

2. Þacked Drottne med hørpum, og lofsynged hønum á tíu streingia psálltara.

3. Synged hønum nyann dickt, og stilled hønu þad hliódfære vel med hákvæde.

4. Þviad ord Drottins er sann-

arlegt, og hvad hann lofar, Þad efner hann vissulega.

5. Hann elskar rettvísena og dómenn, jørdenn hún er full af miskun Drottins.

6. Himenenn er fyrer ord Drottins gerdur, og fyrer anda hans munns allur hans her.

7. Hann helldur vatnenu tilsamans í stónum, so sem í ødrum belg, og leggur underdiúpenn í leynd.

8. Øll verølldenn hún óttast Drottinn, og fyrer hønum hræðest allt hvad á jørdunne bygger.

9. Þviad so sem hann seiger, so skedur Þad; so sem hann bifalar, so stendur Þad Þar.

10. Drottinn hann ónytar gerer rádagerder hinna heidnu, og umsnyr hugsunum fólksins.

11. Enn rád Drottins Þad blífur eylíflegana, hans hiartans hugsaner um alldur og æfe.

12. Sæl er sú Þiód, hverrar Gud Þad Drottinn er, og Þad fólk hvert hann hefir ser til arfleifdar útvaled.

13. Drottinn hann lítur af himne ofann, og ser øll mannanna børn.

14. Ut af sínu føstu tignar sæte lytur hann yfer alla, Þá sem á jørdunne byggia.

15. Hann hneiger allra Þeirra hiørtu, hann hyggur ad allra Þeirra verkum.

16. Konungenum stodar eigi sitt mikla magtar vellde, og risenn hann hiálpast eigi fyrer sinn mikla mannskap.

17. Hestarner hiálpa og eigi, og Þeirra hid mikla afl Þad frelsar eigi.

18. Siá Þú! augu Drottins líta á Þá sem hann óttast, Þá sem vona uppá hans miskunseme,

19. So hann frelse Þeirra sáler úr daudanum, og gefe Þeim fædslu í hallærenu.

20. Sála vor hún vænter Drottins, hann er vor hiálp og hlífdar skiølldur.

21. Þviad í hønum gledíast vor hiørtu, og ver vonum á hans hid heilaga nafn.

22. Þín miskun, Drottinn! hún se yfer oss, epter Því sem ver vonum á Þig.

## 34. Psalmur.

Psalmur Davids, Þá ed hann breytte andlite sínu fyrer Abimelech, hver ed rak hann frá ser, og hann fór burt.

2. Alla tíma vil eg lofa Drottinn, hans lofgerd skal ætíd vera í mínum munne.

3. Mín sála skal hrósa ser í Drottne, svo Þad heyre hiner fárádu og glede sig.

4. Vegsamed Þer Drottenn med ur mer, og látum oss, hvern med ødrum, upphefia hans nafn.

5. Þá ad eg leitade Drottins andsvarade hann mer, og frelsade mig út af allre minne hrædslu.

6. Þeir ed á hann líta, og til hans skunda, Þeirra augsion verdur eigi til skammar.

7. Þá hinn fátæke kallade, Þá heyrde Drottenn, og hiálpade hønum út af allre sinne anaud.

8. Eingell Drottins hann setur herbúder í kringum Þá sem óttast, og hiálpar Þeim Þadann.

9. Smaked Þer og siáed, hversu Drottinn hann er liúfur; sæll er sá hver ed á hann treyster.

10. Óttest Drottinn Þer hans heilager, Þviad Þeir sem hann óttast, hafa engann brest.

11. Hiner ríku munu vidÞurfa og hungur lída, enn Þeir sem leita

Drottins munu engann skort hafa á neinu gódu.

12. Komid hingad børn, hlíded mer, ótta Drottins vil eg kenna ydur.

13. Hver er sá madur sem gyrnest lífid? og giarnann vill hafa góda daga?

14. Vara þú þína tungu í frá illu, og þínar varer, so ad þær tale eigi flærd.

15. Lát af illu og ger hid góda, leita fridarins, og sæk epter hønum.

16. Augu Drottins líta á hina rettlátu, og hans eyru á þeirra kall.

17. Enn andlit Drottins stendur yfer þeim sem illa gera, so þad hann í burtræte þeirra minning af jørdunne.

18. Nær ed hiner (rettlátu) kalla, þá heyrer Drottinn þad, og hiálpar þeim út af allre þeirra á-naud.

19. Drottinn hann er nálægur þeim sem sundurknosader eru í hiarta, og hiálpar þeim, sem sundursleiged sinne hafa.

20. Sá hinn rettláte hlytur margt ad þola, enn Drottinn frelsar hann af því øllu saman.

21. Hann forvarar øll hans bein, so eigi eitt af þeim í sundur brotnar.

22. Ogæfann hún mun drepa hinn ógudlega, og hiner sem hata hann rettláta, þeir munu seker verda.

23. Drottinn hann frelsar sáler sinna þiónustumanna, og aller þeir ed á hann treysta, munu sykn saka verda.

## 35. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Þrätta þu Drottinn! vid þá sem vid mig þrátta, berstu vid þá sem imóte mer beriast.

2. Þríf þú skiølldenn og vopned, og tak þig upp mer til hiálpar.

3. Reid þú til spióted, og ver mig imóte mínum ofsóknurum, seig þú til minnar sálar: eg em þín hiálp.

4. Skammest þeir sín og verde háđar, sem stunda epter minne sálu; snúe þeir á bak aptur og til skammar verde, sem mer vilia til vonda.

5. Verde þeir sem síð fyrer vinde, og eingell Drottins hann burthrinde þeim.

6. Þeirra vegur hann verde myrkur og háll, og eingell Drottins hann ofsæke þá.

7. Þviad þeir hafa fyrer enga søk lagt sitt net mer til fordiørfunar, og hafa án saka minne sálu grøfena tilbúed.

8. Oforvarandis verde hann yferfallenn, og þad neted sem hann hefir lagt, veide hann siálfann, og verde hann þar med yferfallenn.

9. Enn mín sála hún glede sig í Drottne, og se gladvær í hans hiálp.

10. Øll mín bein þau meiga vel seigia; Drottinn! hver er þer líkur? þú sem frelsar hinn volada í frá þeim sem hønum yfersterkare er, og hann hinn fátæka og fáráda í frá þeim sem hann ræner.

11. Þar gengu upp illviliuger vottar, og vitnudu þad á mig sem eg var eigi valldur.

12. Þeir gera mer illt fyrer godt, ad koma mer í hiartans sorg.

13. Enn eg, þá ed þeir voru siúker, klædest sorgarbuninge, þvingande mig med føstum, og út af hiarta þá badst eg fyrer.

14. Eg hellt mig sem være hann vinur minn og bróder, eg geck hlióđ-

ur, líka sem sá ed syrger sína móður.

15. Enn þeir glóddu sig yfer mínum skada og taka sig saman. Hiner hølltu sofnudust saman á móte mer án minnar sakar, þeir hriffa og láta eigi af.

16. Medur smiódyrum og hádgiørnum mønnum bukfiins vegna, bitu þeir sínnum tønnum tilsamans yfer mer.

17. Drottinn! hversu lenge villtu siá uppá þad? frelsa þú þó mína sál í burt frá þeirra harke, og mína þá einsømu frá þeim ungu Leonum.

18. J þeirre hinne miklu samkundu vil eg þer þacker gera, og á medal mikels fólksfiølda vil eg lofa þig.

19. Láttu þá eigi gledia sig yfer mer, sem eru míner óviner án saka, edur spotta mig med augunum, sem mig hata fyrer enga søk.

20. Þvi þeir áhunda skada ad gera, og leita falskra saka imóte þeim kirrlátu í landenu.

21. Þeir uppsperrtu sinn munn víbt á móte mer og seigia: siá þar! siá þar! þad siáum ver giarnann.

22. Drottinn! þú ser þad, þeige þú eigi, Drottinn vertu mer eigi fiarlægur.

23. Uppvek þig og vakna til míns rettar, og til míns málefnes, minn Gud og Drottinn!

24. Drottinn Gud minn! dæm þú mig epter þínu rettlæte, so ad þeir glede sig eigi yfer mer.

25. Lát þá eigi seigia í sínu hiarta, siá þar, þad vilium ver! láttu þá eigi þad seigia: ver høfum uppsvelgt hann.

26. Skammest þeir sín og ad skømm verde þeir aller sem gledia sig af mínum óførum, med skømm og forsmán verde þeir klædder, sem hrósa ser á móte mer.

27. Fagne og gledest þeir, sem mer unna, ad eg hallde rettenum, og þeir ed ætíd seigia: Drottinn skal vera hátt lofadur, sá ed sínum þióni vill vel.

28. Og mín tunga skal tala um þitt rettlæte, og prísa þig daglegana.

## 36. Psalmur.

Psalmur Davids, Drottins þiónustumanns, til ad syngia fyrer.

1. 2. Þad er sagt af mínu hiartans grunne um athæfe þeirra óguðlegu, þar er engenn Guds ótte hiá þeim.

3. Þeir fegra sig siálfer sín á mille, so ad þeir frammkome sínu vonda málefne, og umsnúe annara.

4. Allur þeirra lærdómur er skadsamur og lógenn, þeir láta eigi leidretta sig ad gera nockud gott.

5. Helldur hugsa þeir í hvílum sínum um skadsemena, og standa faster á þeim illsku-vege, og fordast eigi illt.

6. Drottinn! þín miskunseme tekur so vídt sem himenenn er, og þinn sannleikur so vídt sem skyenn þau ganga.

7. Þitt rettlæte stendur líka sem fialled Guds, og þíner dómar so sem miked reiginn diup, Drottinn! þú hiálpar hvorútveggium, bæde mønnum og fenade.

8. Gud! hversu dyrmæt ad er þín miskun, so þad mannanna børn hafa traust under skugga þinna vængia!

9. Þeir verda druckner af nægdargotse þíns húss, og þú dryckiar þá med vellystingu, so sem med rennande vatne,

10. Þviad hiá þer er lifande

uppspretta, og í þínu lióse siáum ver lióséd.

11 Breid þú þína gæðsku út yfer þá sem þig þeckia, og þína rettvíse út yfer þá góðu.

12. Lát mig ei af þeim dramb látu fóttrodenn verda, og þad hönd hins ógudlega fleyppe mer eigi.

13 Helldur láttu þá illgerda menn þar í þeim stad nidurfalla, so ad þeir burt snaraðer verde, og blife eigi framar.

## 37. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Eigi skalltu gramur vera yfer þeim illu; vert eigi ofundsamur yfer þeim illgerda mønnum.

2. Þviad so sem gras munu þeir verda skiotlega upphøgguer, og líka sem þad hinar grænu jurter munu þeir upp visna.

3. Vona þú á Drottinn, og ger hid góda, bu þú í landenu, og leita þinnar atvinnu ærlega.

4 Haf þú þína unadsemd á Drotine, hann mun gefa þer hvad sem þitt hiarta beidest.

5. Bifala þú Drottne þína vegu, og vona á hann, hann mun þvi vel til vegar koma.

6. Og hann mun þitt rettlæte her frammleida sem lióß, og þinn rett líka sem middeiged.

7. Halltu kirru fyrer, fyrer Drottne, og haf vontan á hønum, vert ei reidur vid þá, hverra illska ad hefir framm gang.

8. Viergef þú reidena, og lát af styggyndenu, reidst þu eigi, so ad þú innenn illa gérer.

9. Þvi þeir hinu illu verda afmáder, enn hiner sem bída Drottins, þeir munu landed erfa.

10. Þad er enn nu um einn lítenn tíma (ad gera) þa mun hinn ógudhrædde ei lengur vera, og nær ed þú skígnest epter hans stad, mun hann vera í burt.

11. Enn hiner aumu munu landed erfa, og unadsemd hafa í miklum fride.

12. Hinn ógudhrædde bótar þeim rettláta, og nistter sínum tønnum tilsamans yfer hønum.

13. Enn Drottinn hann hæðer ad hønum, þviad hann ser þad hans dagur mune koma.

14. Hiner ógudhræddu ryckia út sverdum, spenna upp sinn boga, svo ad þeir felle hina fátæku og sárádu, og nidurdrepe hinn fróma.

15. Enn þeirra sverd munu innganga í þeirra siálfs hiarta, og þeirra boge mun í sundurbrotna.

16. Þad hid litla sem hinu rettláte hefir, er betra, helldur enn þau hin miklu audæfenn margra ógudhræddra.

17. Þviad armleggur ógudlegra mun í sundurbrotna, enn Drottenn hann vid magt helldur hinum rettferduga.

18. Drottne eru kunner dagar þeirra hinna fromu, og þeirra audur mun vara eylíflega.

19. Þeir munu ei til skammar verda í þeirre vondre tíd, og á þeim hallæris tímum munu þeir sadning hafa.

20. Þviad hiner ógudlegu munu fyrerfarast og þeir óviner Drottins, þó þeir være eins og lýstugur grashage, þá munu þeir þó forganga, líka sem reykur ad engu verdur.

21. Hinn ógudhrædde tekur lán og bitalar eigi, enn sá hinn rettferduge er miskunsamur og milldur.

22. Þviad hans hiner blessudu munu landed erfa, enn hans bølvader munu afmáder verda.

23. Af Drottne mun greidast

þess manns gangur, og hann hefir þocknan á hans vegum.

24. Þó að hann hrase, þá verður hann eigi í burtkastadur, Þviad Drottinn helldur i hønd med hønum.

25. Eg var ungur, og em nú gamall ordenn, og ei hefi eg enn séd hinn rettferduga verda yfergefenn, ne hans sæde ganga epter braude.

26. Alltíd er hann miskunsamur, og lánar giarnann, og hans sæde mun blessad verda.

27. Lát af illu og ger godt, og bú um alldur og æfe.

28. Þviad Drottinn hann elskar rettindenn, og yfergefur eigi sína heilaga, ad eylífu verda þeir vardveitter, enn sæded ógudhræddra mun upprætast.

29. Hiner rettferdugu erfa landed, og búa þar inne eylíflega.

30. Munnur hins rettferduga mæler vitsku, og hans tunga hun kenner rettinde.

31. Løgmáled hans Guds er í hans hiarta, hans gangur skridnar eigi.

32. Hinn ógudhrædde umsitur hinn rettferduga, og hugsar ad deyda hann.

33. Enn Drottinn yfergefur hann eigi í hans hendur, og fyrerdæmer hann ei, þá ed hann verdi dæmdur.

34. Bíd þú Drottens, og vardveit hans veg, so mun hann upphefia þig, so ad þú landed erfer; þú munt þad siá, ad hiner ógudhræddu verda afmáder.

35. Eg sá einn ógudhræddann, sá var traffugur, og hann þande sig út, og blómgadest sem laurberiatre.

36. Og þá madur geck þar framm hiá, siá þu! þá var hann burtu, eg spurde ad hønum, þá fannst hann hvergi.

37. Vertu meinlaus og haga þer retteleag, þviad slíkum mun ad síðurstu vel ganga.

38. Enn hiner ránglátu munu aller tilsamans afmáder verda, og hiner ógudhræddu munu umsíder upprætter verda.

39. Enn Drottinn hann hiálpar þeim rettlátu, hann er þeirra stirkur í neydenne.

40. Og Drottinn mun hiá þeim standa, og frelsa þá, hann mun frá ógudhræddum frelsa þá, og þeim hiálp veita, þviad þeir treysta á hann.

## 38. Psalmur.

Psalmur Davids til minningar.

1. 2. Drottinn! straffa þú mig eigi í reide þinne, og tyypta mig eigi í þinne grimmd.

3. Þviad þín skeyte þau standa í mer, og þín hønd hún þiakar mer.

4. Eingenn heilbrigde er í mínu hollde fyrer þinne ognan, og eigi er neinn fridur í mínum beinum, fyrer søkum synda minna.

5. Þviad mínar synder eru uppgeingnar yfer mitt høfud, líka sem ønnur þung byrde eru þær mer ofþungar ordnar.

6. Mín sár lycta illa, og eru vægd, fyrer heimsku minnar sakar.

7. Eg geing lotenn og miøg beygdur, allann dagenn þá geing eg hriggur.

8. Þviad mínar lendar eru uppvísnadar med øllu, og ecke er heilbrigdt í mínu hollde.

9. Þad er orded umskiptelegt fyrer mer, og eg em miøg sundur knosadur, eg æpe út af óróseme míns hiarta.

10. Drottinn! fyrer þer er øll

mína gyrnd, og mín andvarpan er þer ei hulenn.
11. Mitt hiarta þad skelfur, minn krauptur hann hefir mig yfergefed, og liose minna augna þad er eigi hiá mer.
12. Míner viner og kunningiar standa igegn mer, og horfa á mína pínu, og míner náungar ganga langt í burt.
13. Og þeir sem stunda epter minne sálu, umsitia mig, og þeir ed mer vilia til vonda, tala um þad, hvernenn þeir fáe skada gert, og umgangast eigi utan med svikrádum.
14. Enn eg hlyt ad vera sem deusingi, og heyra eigi, og so sem mallaus, sá ed ei upplykur sínum munne.
15. Og eg hlyt ad vera so sem sá ed eigi heyrer, og sá sem ecke mótmæle hefir í sínum munne.
16. Enn eg, Drottinn! bíd epter þer, þú Drottinn Gud minn munt bænheyra mig.
17. Þviad eg þeinke, ad eigi mune þeir ná ad gledia sig yfer mer, þá míner fætur skeika, þá munu þeir hælast miøg um vid mig.
18. Þviad þar til em eg gerdur, ad eg líde, og mín pína er jafnan fyrer mer.
19. Þviad eg gere kunnann minn misgerning, og ber angur fyrer mínar synder.
20. Enn míner óviner þeir lifa, og eru megtuger, þeir ed mig hata óretttvíslega eru mikels háttar.
21. Og þeir ed mer gera illt fyrer godt, setia sig upp á móte mer, af þvi, ad eg epterfylge þvi enu góda.
22. Yfergef þú mig eigi Drottinn Gud minn, vert þú eigi fiarlægur mer.
23. Flyttu þer til ad standa hiá mer, Drottinn mitt hiálpræde!

## 39. Psalmur.

Psalmur Davids, fyrer-ad syngia fyrer Jeduthun.

1. 2. Eg hefe einsett mer; eg vil varast þad eg syndge eigi med minne tungu. Eg vil temia minn munn, á medan eg hlyt ad siá þann ógudlega so fyrer mer.
3. Eg em mállaus og hliódur, og eg þeige um gledskapinu; minn harm hlyt eg med mer ad mellta.
4. Mitt hiarta þad brennur í mínum líkama, og nær eg hugsa þar til, þá stikna eg, eg ræde med minne tungu.
5. Enn kenn þú mer þó Drottinn! ad þad hlióte enda ad hafa um mig, og ad míner lífdagar hafe takmark, og eg hlyt frá ad hverfa.
6. Siá þú! míner dagar eru hiá þer, sem ein þverhandar breidd, og mitt líf er so sem eigi pared fyrer þer. Hversu ølldungis ecke eru aller menn, þeir ed þó so áthugalauser lifa, Sela.
7. Þeir lída í burt hedan, sem skugge, og gera ser marga óþarfa armædu; þeir safna samann, og vita ei hver þad mune fá.
8. Nú Drottinn! hvar vid skal eg hugga mig? eg vona á þig.
9. Frelsa þú mig út af øllum mínm syndum, og lát mig eigi þeim vitleysingum ad háde verda.
10. Eg vil þeigia, og eigi mínum munne uppluka, þú munt þvi vel af stad koma.
11. Tak burt þína plágu af mer, þviad eg em máttlaus út af hirtingu þinnar handar.
12. Nær ed þú typtar nockurn syndarennar vegna, þá fortærest hans fegurd, sem være hún mølet-

enn, oh! hversu alldeilis ecke eru aller menn! Sela.

13. Heyr þú, Drottinn! mína bœn, og merk mitt ákall, og þeig eigi vid mínum tárum, Þviad eg em bæde þinn pilagrimur, so og líka þirn borgare, so sem aller míner sedur.

14. Gef upp vid mig, so ad eg endurlifne ádur enn þad eg fari í burt hedann, og em her ei leingur!

## 40. Psalmur.

Psalmur Davids til ad syngia fyrer.

1. 2. Eg beid epter Drottne, og hann hneigde sig til mín, og heyrde mitt ákall.

3. Og hann dró mig út af þeirre ógnar grøf, burt úr þeim saurenda þreck, og sette mínar fætur á fasta hellu, so ad eg kann ad ganga stødugt.

4. Og nyann saung gaf hann mer í minn munn, til ad lofa vorn Gud, marger munu þad siá, og óttast Drottinn, og vona á hann.

5. Sæll er sá sem setur sína von uppá Drottinn, og hann hver ad eigi snyr til hinna sergodu, og þeirra sem lygar um hond hafa.

6. Drottinn, minn Gud! miklar þá eru þínar dádsemder, og þínar hugsaner, þær þú audsyner oss, ecke er þer líkt, eg vil kunngera þær, og þar af seigia: þó ad þær seu ótelianlegar.

7. Fórner og matoffur þocknast þer eigi, enn mín eyru opnader þú, brennefórner og syndaoffur þad vilt þú eigi.

8. Þá sagde eg: siá þú! eg kem, í bókenne er skrifad af mer.

9. Þinn vilia, minn Gud! gere eg giarnann, og þitt løgmál hefi eg í mínu hiarta.

10. Eg vil predika rettvísena í þeirre hinne miklu samkundu, siá þú! eg mun eigi minn munn á mer byrgia láta, þú Drottinn! veitst þad.

11. Þína rettvíse byrge eg ei í mínu hiarta, út af þínum sannleika og hiálpræde þá tala eg, eg dyl eigi þína miskun og sannleiks triggd fyrer þeirre hinne miklu samkundu.

12. Enn þú, Drottinn! snú eigi þinne miskun frá mer; láttu þína miskunsemd og trufeste jafnann vardveita mig.

13. Þviad ótelianleg kvalræde hafa umkringt mig, mínar synder hær høndludu mig, so ad eg kann ei ad siá: fleyre eru þær, enn hárenn á hofde mínu, og mitt hiarta þad hefir yfergefed mig.

14. Lát þer þad þeckt vera, Drottinn! ad þú frelser mig. Flyttu þer Drottinn mer til hiálpar!

15. Skammast meiga þeir sín, og til skamma verda, sem stunda epter minne sálu, ad þeir tortíne henne, til baka falle þeir, og til skammar verde þeir, sem mer vilia til vonda.

16. Af sinne hneysu þá hræðest þeir, sem hrópa yfer mer og seigia: sia har! siá har!

17. Glede sig og fagne aller þeir ed þín leita, og þeir ed þitt hiálpræde elska, þá meige þeir ætíd seigia: Drottinn se hátt lofadur!

18. Þviad eg em fátækur og fáradur, enn Drottinn ber áhyggiu fyrer mer. Þú ert minn hiálpare og frelsare, minn Gud seinka þú eigi!

## 41. Psalmur.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia.

1. 2. Sæll er sá sem annast hinn Þurftuga, Drottinn mun frelsa hann í þeirre hinne vondu tíd.

3. Drottinn mun bivara hann, og hallda hønum vid lifed, og láta hønum vel ganga á jørdunne, og: yfergeff hann ei í vilia sinna óvina.

4. Drottinn mun endurlífga hann á hans sóttarsæng, þú hiálpar hønum út af øllu hans krankdæme.

5. Eg sagde: Drottinn! miskuna þú mer, lækna þú sál mína, þviad eg hefe syndgaft á móte þer.

6. Míner óviner þeir mæla vondslega til mín, nær mun hann deya, og hans nafn forganga?

7. Þeir fara ad skoda, og meina þad þó eigi út af hiarta, helldur leita nockurs sem þeir kunne ad lasta, ganga sídan á burt, og bera þad út.

8. Aller þeir ed mig hata hvískra tillsamans á móte mer, og hugsa mer vondt til.

9. Eitt illskapar hafa þeir ályktad á móte mer; nær ed hann liggur, þá skal hann eigi upp aptur standa.

10. Einnenn minn vinur, hverium eg treyste, sá ed át mitt braud, hann tredur mig under fætur.

11. Enn þú Drottinn! miskuna mer, og hiálpa mer á fætur, og mun eg þá endurgiallda þeim.

12. Ut af þvi formerke eg, ad þú hefir þocknan á mer, ad minn óvinur hlackar eigi yfer mer.

13. Enn mig þá stydur þú fyrer míns meinleysis saker, og setur mig fyrer þinne augsion æfenlega.

14. Lofadur se Drottinn Gud Israels frá nú og til eylífrar tídar, amen, amen!

## 42. Psalmur.

Ein underviísun barna Chore ad syngia fyrer.

2. Líka sem þad hiørturenn kallar epter fersku vatne, so kallar mín sála, Gud! til þín.

3. Mína sálu þana þyrster epter Gude, epter þeim lifanda Gude, hvønær mun eg þangad komast, þad ad eg siáe Guds andlit?

4. Mín tár þau eru mín fædsla dag og nótt, med þvi ad daglega verdur til mín sagt: hvar er nú þinn Gud?

5. Nær eg hugsa þar til, þá úthelle eg mínu hiarta hiá siálfum mer, þviad eg villde giarnann med þeim flocknum burtganga, og med þeim fara til Guds húss, med gledskap og þackargerd, med þeim hópnum sem ad helldur heilagt.

6. Þvi angrar þú mig sála mín, og ert so óróleg í mer? bíd þú epter Gude, þviad eg mun hønum enn þacker giera, þad hann hiálpar mer med sínu auglite.

7. Minn Gud! sála mín er sorgbitenn í mer, þar fyrer minnest eg á þig í landenu hiá Jordan og Hermonim, á þvi litla fialle.

8. Þín vatnsføll dynia þadann, so ad eitt diúped ser framm, og annad diúped fosser þar framm, allar þínar vatnsøllдur og bylgiur ganga luckt yfer mig.

9. Drottinn hefir á degenum heited sínne gæsku, og á náttar tíma syng eg hønum, og bid til Guds míns lífs.

10. Eg sege til Guds míns styrktar biargs, hvar fyrer gleymer þú mer? þvi hlyt eg ad ganga so sorgfullur, þá ad minn óvinur hann þvingar mig?

11. Þad er so sem í mínum beinum, þad míner óviner smána mig, þá er þeir segia daglegana til mín, hvar er nú þinn Gud?

12. Því ert þú sála mín so sorgfull, og ert so angurvær í mer? vona þú á Gud, þviad eg mun høn-

um enn þacker gera, þad hann er míns auglitis hiálpare, og minn Gud.

## 43. Psalmur.

1. Dæm mig Gud! og frammfylg mínu málefne imóte þeirre óheilagre þióð, og frelsa mig frá svikfamlegu og illu fólke.

2. Þviad þú ert Gud minn stirkleike, hvar fyrer útskufar þú mer? þvi lætur þú mig ganga so sorgfullann, nær ed minn óvinur hann þreynger ad mer?

3. Uisend þú þitt liós og þinn sannleika, ad þau leidtoge mig, og leide mig á þitt heilaga fiall, og í þína tialldbúd.

4. So þad eg inngange til Guds alltaris, til þess Guds sem er mín glede og unadsemd, og þad eg þacke þer Gud, med hørpunne, minn Gud!

5. Hvar fyrer ertu, sála mín, so sorgfull? og ert so óró í mer? vona á Gud, þviad eg mun hønum enn þacker gera, þad hann er hiálpare míns andlitis, og minn Gud.

## 44. Psalmur.

Ein underviísun barna Chore fyrer ad syngia.

2. Gud! ver høfum heyrt med vorum eyrum, fedur vorer hafa kunngert oss þad, hvad þú gerder á þeirra tímum fordum daga.

3. Þú í burt rakst hina heidnu med þinne hende, enn innsetter þá, þú fordiarfader fólked, enn þá útbreidder þú.

4. Þviad ei hafa þeir landed under sig lagt med sínu sverde, og þeirra armur stodade þeim eigi, helldur þín hægre hønd, þinn armleggur, og liosed þíns andlits, þviad þú hafder godann þocka á þeim.

5. Gud! þú ert sá hinn same minn konungur, þú sem Jacob hiálpræde fyrerhetst.

6. Fyrer þig vilum ver vora óvine vid velle leggia, í þínu nafne vilum ver þá under fætur troda sem reisa sig upp á móte oss.

7. Þviad eigi treyste eg uppá minn boga, og mitt sverd kann mer eigi ad hiálpa.

8. Helldur hiálpar þú oss frá vorum óvinum, og geter þá til vanvirdu sem oss hata.

9. Daglega vilium ver hrósa oss í Gude, og þínu nafne þacker gera eylíflega, Sela.

10. Hvar fyrer burt skufar þú oss þá nú, og lætur oss til skammar verda? og dregur eigi út med voru herlide.

11. Þú lætur oss flya fyrer vorum óvinum, so ad þeir, hverer ed hata oss, ræna oss.

12. Þú lætur oss uppetast sem saude, og í sundur dreifer oss medal heidenna þióda.

13. Þú selur þitt fólk út fyrer eigi par, og tekur ecke verd fyrer þad.

14. Þú gerer oss ad forsmán vorum nábúum, ad spotte og háde þeim sem í kringum oss eru.

15. Þú gerer oss ad málshætte á medal heidingianna, og fólked skekur høfudinn ad oss.

16. Daglega er mín smán fyrer mer, og mín asiána er full af forsmán.

17. So ad eg heyre þá nidrunar menn og lastendur, og verde ad siá þá óvine og þá hefndargiørnu.

18. Allt þetta er yfer oss komed, og ver høfum þó eigi forgleymt þer, og eigi høndlad ótrulega í þínum sáttmála.

19. Vort hiarta er eigi frá falls-

ed, ne vor ganga vikenn af þínum vege.

20. Ad þú sundurbrytur oss þannenn medal drekanna, og skyler oss med myrkrenu.

21. Ef ad ver hefdum forgleymt Guds vors nafne, og vorar hendur upphafed til eins annarlegs Guds,

22. Þad mætte Gud vel finna; nú þecker hann vel vorn hiartans grunn.

23. Þviad dáglega verdum ver fyrer þína skullð nidur drepner, og erum hallðner so sem adrer slátrunar sauder.

24. Vakna þú upp, Drottinn! hvar fyrer sefur þú? vakna þú, útskufa oss eigi so algerlega.

25. Hvar fyrer byrger þú þitt andlit? forgleymer vorre eymd og Þreyngingum.

26. Þviad vor sála er til jardar nidurbeygd, vor kvidur hann klessest nidur vid jordena.

27. Tak þig upp, hiálpa oss, og frelsa þú oss fyrer þinnar miskunar saker!

## 45. Psalmur.

Brúdar diktur, og undervísun barna Chore, til ad syngia fyrer út af rosenne.

1. 2. Hiarta mitt þad yrker eitt ágætt kvæde; utaf einum konunge vil eg syngia: mín tunga er penne eins ágæts skrifara.

3. Þú ert hinn frídaste á medal mannanna barna, ástudlegar eru þínar varer, þarfyrer blessar þig Gud eylíflega.

4. Gyrd þitt sverd vid þína sídu, þú hetia! og pryd þig fagurlega.

5. Þad skal luckast þer vel í þinne pryde. Bruna þú her framm sannleikanum tilgóda, og þá hina fátæku vid rettinn ad halda, þá mun þín hægre hønd dádsemdarverkenn audsyna.

6. Hvøss eru þín skeyte, so þad fólked hrinur nidur fyrer þer, midt á millum kongsins óvina.

7. Gud! þinn stóll, hann varer um alldur og ad eylífu, þíns rikes sprote er rettur sprote.

8. Þú elskar rettlæted, enn hatar ógudlegt athæfe, þar fyrer hefir þig Gud, þinn Gud, smurt med gledinnar vidsmiøre, meir enn þína samlags-brædur.

9. Þín klæde eru eigi utann myrrha, aloes og kezia, nær ed þú útgengur af filabeins høllenne í þinne fögru pryde.

10. Í þinne pryde ganga konunganna dætur; brúdurenn stendur til þinnar hægre handar, í einungis kostulegu gulle.

11. Heyr þú dotter! lyt þar á, og hneig þín eyru, forgleym þínu fólke, og þíns fødurs húse.

12. Þá mun kongurenn lysting fá á þinne fegurd, þviad hann er þinn Drottinn, og þá skallt þu hann tilbidia.

13. Dæturnar Tyri munu þar medur giøfum vera: hiner ríku medal fólksins munu grátbæna fyrer þer.

14. Kongsins dotter er nærsta dæeleg hid innra; hún er klædd med gullvefiar bordum.

15. Hún er í útstungnum klædum til kongsins leidd, og hennar leiksystur, meyarnar, þær ed henne epterfylgia, verda leiddar til þín.

16. Þær verda leiddar med glaum og gledskap, og innganga í kongsins høll.

17. Í stadenn fedra þinna muntu fá børn, þá muntu setia til høfdingia í allre verølldunne.

18. Minnast vil eg þíns nafns, frá barne og til barna barna, fyrer

Þad mun fólked þer þacker gera, um alldur og ad eylífu.

## 46. Psalmur.

Einn dicktur barna Chore, fyrer ad syngia, út af æskuune.

1. 2. Gud hann er vort athvarf og styrkur, einn hiálpare í þeim miklu ánaudum sem á oss hafa hitt.

3. Þar fyrer óttunst ver eigi þó ad veralldenn undergenge, og þó ad fiøllenn sycke nidur í hafed midt.

4. Þó ad siórenn geysade einnenn, og rótadest um, og ad biørgenn út af hans olgu nidur hrynde, Sela.

5. Samt mun Guds stadur vera kyskulegur, og lystelegur med sínum vatns brunnum, þar ed eru heiløg herberge hins hæsta.

6. Gud er hiá hønum þar fyrer innann, af því mun hann vel blífa, Gud hann hiálpar hønum árla.

7. Hiner heidnu munu ørvænta, og kongaríkenn falla, jørdenn hlytur ad forganga, nær ed hann lætur sig heyra.

8. Drottinn Zebaoth er medur oss, Gud Jacobs hann er vor verndare, Sela.

9. Kømed hingad, og siáed verkenn Drottins, hver ed soddann foreyding gerer á jørdunne.

10. Hann ed bardøgum aptrar í allre verølldu. Hver ed bogann brytur, hver ed vopnenn í sundur molar, og kerrurnar brenner í elldе.

11. Vered kirrer og medkenned, þad eg em Gud, eg vil frægder vinna á medal heidinna þióda, eg vil á jørdu frægd vinna.

12. Drottinn Zebaoth er medur oss, Gud Jacobs hann er vor verndare, Sela.

## 46. Psalmur.

Psalmur barna Chore, ad syngia fyrer.

1. 2. Hafed lófatak allar þióder, hátt lofed Gud med gledelegre raustu!

3. Þviad sá hinn hæst Drottenn hann er ógurlegur, einn mikelsháttar konungur yfer allre jardarkringlunne.

4. Hann mun fólked under oss þvinga, og þiódernar undervora fætur.

5. Hann útvelur oss til arfleidar, vegsemdena Jacobs, hvern hann elskar, Sela.

6. Gud hann stígur upp med hásum fagnadar hliódum, og Drottinn med skiærre ludra raust.

7. Synged lof, synged lof Gude, synged lof, synged lof vorum konge!

8. Þviad Gud hann er kongur á allre jørdunne; synged hønum lof forsiálegana.

9. Gud er kongur yfer heidingunum. Gud hann sitiur á sínum heilaga stóle.

10. Høfdingiar þiódanna eru samansafnader til fólksins Guds Abrahams, þviad Gud hann er miøg upphafenn, hiá skiølldunum á jørdunne.

## 48. Psalmur.

Ein Psalmvísa barna Chore.

2. Mikell er Drottinn, og hálofadur í borginne Guds vors, uppá sínu heiløgu fialle.

3. Fialled Zion er so sem einn fagur vidarkvistur, af hverium allt landed huggar sig; vid þá nyrdre sídnna liggur borgenn hins mikla kongsins.

4. Gud er í hennar høllum medkenndur, þad hann er verndenn.

5. Þviad siá þú, ad kongarner eru tilsamans safnader, og einn med ødrum þá hafa þeir þar fram hiá fared.

6. Þeir undruduſt, þá ed þeir ſáu ſoddann; þeim œgde þad ſiálfum, og eru um koll faliner.

7. Skelfingenn er þar yfer þá komenn, angiſt ſo ſem þeirrar ed jódſiúk er.

8. Þú í ſundurbrytur ſkipenn í hafenu, fyrer þann auſtann vind.

9. Líka ſem ad ver høfum heyrt, ſo ſiáum ver í borgenne Drottins Zebaoth, í borgenne vors Guds, Gud helldur vid magt þeirre hinne ſømu ad eylífu, Sela.

10. Gud! þinnar miſkunar vœntum ver í þínu muſtere.

11. Gud! líka ſem ad er þitt nafn, ſo er einnenn þinn hœgre hønd full af rettvíſe.

12. Fialled Zion þad glede ſig, og dœturnar Juda vere gladværar, fyrer þinna rettinda ſaker.

13. Flyckiſt í kringum Zion, og fadmed hana, og teled hennar turna.

14. Legged koſtgæfne á hennar múra, og uppbefed hennar haller, ſo ad þar út af kunne ad ſegiaſt hiá eptirkomendunum,

15. Ad þeſſe Gud, hann er vor Gud, œtíd og ad eylífu, hann leidtogar oſs líka ſem œſkuna.

## 49. Pſalmur.

Pſálmur bárna Chore fyrer ad ſyngia.

2. Heyred til allar þióder, merked þetta aller þer ſem lifed á þeſſum tíma.

3. Bæde alþídu menn og herrarner, bæde ríker og fátœker tilſamans.

4. Minn munnur ſkal út af vísdome tala, og mitt hiarta af ſkilninge ſegia.

5. Ver vilum góda málsgrein heyra, og einn ágætann dickt á hørpurnar leika.

6. Hvar fyrer ſkyllda eg hræddur vera á þeim vonda Døge, nær ed illgerd minna yfergangs-manna umkringer mig?

7. Þeir ed treyſta uppá ſín audœfe, og tráſſa uppá ſitt mikla ríkedœme.

8. Þar kann þó engenn brodet nockurn ad leyſa, ne nockurn vid Gud ad forlíka.

9. Þviad þad koſtar állt formikid, þeirra ſáler ad endurleyſa, ſo ad hann lifatur þad kirrt ad láta vera eylíflegana.

10. Þó ad hann lifde alldrei ſo lenge, og ſiáe eigi grøfena.

11. Þui menn ſkulu ſiá, ad ſoddann viſer menn deya þó, líka ſem þeir hiner heimſku og fáviſu tortínaſt, og hlióta ſín audœfe ødrum ad láta.

12. Þetta er þeirra hiarta, ad þeirra hús mune vara eylíflega, þeirra búſtadur blífe um alldur og œfe, og hafe mikla virding á jørdu.

13. Þó kunna þeir í ſlikum virdingum ei ad blífa, helldur hlióta þeir vid adſkilia ſem annar fenadur.

14. Þeſſe þeirra gerningur er ei utann heimſka, þó loſa þeirra eptirkomendur þad med ſínum munne Sela.

15. So ſem adrer ſauder liggia þeir í helvítez daudenn hann nagar þá, enn hiner rettvíſu munu miøg ſnarlega yfer þeim drottna, og þeirra oſſtœke þad hlytur ad þverra í helvíte hlióta þeir ad blífa.

16. Enn Gud mun frelſa mína ſálu út af helvítis vallde, þviad hann hefir teked mig ad ſer, Sela.

17. Lát eigi þad villa þig, þott ad einn verde ríkur, edur þó ad ſóme hans húſs verde mikell.

18. Þviad í ſínu andláte mun hann engann hlut med ſer taka,

og hans dyrd mun ei epter hønum fara.

19. Enn hann huggar sig vid þetta sællífe, og lofar þad nær einhver stundar epter gódum døgum.

20. So fara þeir epter feòrum sínum, og siá liósed alldrei optar.

21. Stuttlega, nær ed madurenn er í heidrenum, og hefir eigi skilningenn, þá fer hann burt líka sem fenadurenn.

## 50. Psalmur.

Einn Psalmur Asaphs.

1. Gud Drottinn sá volldugi hann talar, og kallar verølldena í frá uppruna sólarennar allt til hennar nidurgøngu.

2. Ut af Zion upprennur sá fegurdar geislenn Guds.

3. Vor Gud hann kemur, og þeiger eigi, fortærande eldur gengur undann hønum, og í kringum hann mikell stormvindur.

4. Hann kallar himenenn og jørdena, þad hann dæme sitt fólk.

5. Samansafned mer mínum heiløgum, þeir ed meir hallda út af sáttmálanum, enn fórnfæringunum.

6. Og himnarner munu kunngera hans rettlæte, þviad Gud er dómarenn, Sela.

7. Heyr þú fólk mitt! lát mig tala, Israel! láttu mig votta medal þín, eg Gud em þinn Gud.

8. Fyrer þinna fórnfæringa saker ávíta eg þig eigi, þínar brennefórner eru þó jafnann samt fyrer mer.

9. Ei vil eg taka uxa af þínu húse, ne hafra út af stalle þínum.

10. Þviad dyrenn øll í skogunum eru mín, og kvikfed á fiøllunum, þar ed þad geingur þusundum tilsamans.

11. Alla fuglana á fiøllunum þá þecke eg, og allrahanda dyr á mørkenne eru fyrer mer.

12. Ef eg em húngradur, þá villde eg þer þar eigi af seigia: þviad jørdenn er mín, og allt hvad þar er inne.

13. Hvert þeinker þú, ad eg vile uxa kiøt eta, edur hafra blód drecka?

14. Offra þú Gude þackargerd, og gialld hinum hæsta þín heit.

15. Akalla mig í neydenne, þá mun eg frelsa þig, og þú skallt þá heidra mig.

16. Enn til hins ógudhrædda seiger Gud: hvar fyrer kunngerer þú mínar rettlætingar, og tekur minn sáttmála þer í munn?

17. Þar ed þú hatar typtunena, og sleyger mínum ordum á bak þer aptur.

18. Nær ed þú ser þiófenn, þá hleypur þú med hønum, og leggur þitt samlag med hórunar mønnum.

19. Þinn munn lætur þú tala illt, og þin tunga fremur slærd.

20. Þú situr og talar imóte þínum brodur; syne þinnar módur bakmæler þú.

21. Þetta gerer þú, og eg þeige, þá meinar þú, þad eg mune líkur þer, enn eg vil straffa þig, og eg vil setia þer þad fyrer augunn.

22. Hygged þó ad þessu, þer sem Gude gleymed, so ad eg burtsvipte eigi eitt sinn, og ad þar se þá engenn frelsare leingur.

23. Hver ed þacklætenu offrar hann heidrar mig, og þad er vegurenn, ad eg syne hønum Guds hiálpræde.

## 51. Psalmur.

1. Psalmur Davids fyrer ad syngia. 2. Þá Nathan spámadur kom til hans, epter þad hann hafde inn geinged til Bersabee.

3. Miskuna þú mer, Gud! epter þinne miskunseme, og afmá mínar synder, epter þinne større miskunseme.

4. Þvo þú mig vel af misgerd minne, og hreinsa mig af synd minne.

5. Þvíad eg medkenne mína misgerd, og mín synd er jafnan fyrer mer.

6. Þer einum hefe eg á móte broted, og illa breitt fyrer þer, so ad þú hallder rettu í þínum ordum, og hreinn verder nær ed þú dæmest.

7. Siá þú! út af syndsamløgu sæde em eg getenn, og í synd gat mig mín móder.

8. Siá! þú hefir lyst til sann leikans sem hulenn liggur; þú lætur mig vita þann heimuglega vís dóm.

9. Asleys þú mig med ysopo, so ad eg hreinsest; þvo þú mig, so ad eg snióhvitur verde.

10. Lát þu mig heyra føgnud og glede, so ad þau beinenn gladvær verde, sem þú hefir í sundurbroted.

11. Byrg þitt andlit frá mínum syndum, og afmá þú allar mínar misgerder.

12. Hreint hiarta skapa þú Gud! í mer, og gef mer einn nyann stødugann anda!

13. Kasta mer eigi burt frá þínu auglite, og tak eigi þinn heilaga anda í frá mer.

14. Hugga mig aptur med þinne hiálp, og sá máttar ande stirke mig.

15. Þvíad yfertrodslu mønnum vil eg kenna þína vegu, so þad þeir syndugu snúest til þín.

16. Frelsa mig í frá þeirre blódskulldu, Gud! þú sem ert minn Gud og hiálpare, so ad mín tunga lofe þitt rettlæte.

17. Drottinn! opna þú mínar varer, so ad minn munnur kunngere þitt lof.

18. Þvíad þú hefir eigi neina villd til offursins, annars þá munde eg gefa þer þad, og brenneoffurenn þocknast þer eigi.

19. Þad offred sem Gude þocknast er harmþrungenn ande, eitt harmþrunged og sundurkramed hiarta þá muntu, Gud! eigi fyrerlíta.

20. Ger þú vel vid Zion epter þinne nád; uppbygg þú múrveggena Jerúsalem.

21. Þá mun þer þocknast offred rettlætisins, brenneoffur og allar fórner, þá munu þeir uxum offra yfer þínu alltare.

## 52. Psalmur.

1. Ein undervísan Davids. 2. Fyrer ad syngia, þá Doeg Edomít kom og kunngerde Saul þad, og sagde: David kom í hús Ahimelechs.

3. Hvad tráffar þú þá tyranne! ad þú fær skada gert? med þvi Guds millde varer enn dagliga.

4. Þín túnga stundar epter skada, og sker med lygunum, so sem beittur hárknífur.

5. Helldur mæler þú illt enn gott, og fals enn rettinde, Sela.

6. Feigenn talar þú allt hvad til skadrædis hørker, med undersørullre túngu.

7. Þar fyrer mun Gud ølldungis med øllu foreyda þig, og þig í sundur slá, og í burt slíta þig úr tialldbúdenne, og uppræta af landenu þeirra lifendu, Sela.

8. Og hiner rettferdugu munu þad siá, og óttast þad, og ad hønum munu þeir hlæa.

9. Siá! þad er sá madur, hver ed ei helt Gud fyrer sitt trúnadartraust, helldur treyste uppá sinn mikla ríkdóm, og var megtugur til skada ad gera.

10. Enn eg mun blífa so sem blómgadur vidsmiørs vidur í Guds húse, treystande uppá Guds miskun, um allder og ad eylífu.

11. Eg þacka þer eyliflegána, þvi þu kannt það vel ad gera, og eg vil vænta þins nafns, þviað þitter heilager hafá þar af glede.

## 53. Psalmur.

Ein undervísun Davids í kornum tilsamans fyrer ad syngia.

2. Þeir fávísu seigia í sínu hiarta, þar er engenn Gud, þeir duga ecke og eru andstyggd ordner í sínu bondu áthæfi; þar er eigi sá neinn ad gódt gere.

3. Gud leit af himnum ofán yfer mannanna børn, ad hann sæe, hvert nockur være vís, sá ed epter Gude spyrde.

4. Enn aller eru þeir af fallner, og aller tilsamans ónyter, þar er ei neinn sá gódt gere, og eigi einn.

5. Hvert vilia þá þeir illgerdamenn eigi láta ser segiast? þeir ed uppsvelgia mitt fólk, so þeir nære siálfa sig, Gud ákalla þeir eigi.

6. Enn þar eru þeir hræddir um sig, sem ecke er uggande, þviad Gud í sundurdreifer beinum þeirra plágaranna, þú gerer þá til skammar, þvi Gud hann forsmáer þá.

7. Ach! ad hiálpræded út af Zion kæme yfer Israel, og Gud frelsade sitt herteked fólk, þá munde Jacob gledia sig, og Israel gladvær verda.

## 54. Psalmur.

1. Undervísan Davids, fyrer ad syngia á hliódfære. 2. Þá þeir af Siph komu, og kunngerdu Saul, David helldur sig í fylsnum hiá oss.

3. Hiálpa þú mer Gud! fyrer þitt nafn, og lát mig rett ske fyrer þína magt.

4. Gud! heyr þú mína bæn, hygg ad málenu míns munns.

5. Þviad hiner drambsømu setia sig upp ó móte mer, og hiner forsugu sækiá epter minne sálu, og hafa ei Gud fyrer augum, Sela.

6. Siá þu! Gud hann hiálpar mer, Drottinn hann er sú sem annast sálu mína.

7. Hann mun þá hreckvísse mínum óvinum endurgiallda; nidurbriót þú þá fyrer þína tryggd.

8. Þá vil eg færa þer fagnadar fórner, og þínu nafne, Drottinn! þacker gera, ad það er so huggunarsamlegt.

9. Þviad þú frelsar mig út af allre minne neyd, so þad mitt auga ser sína villd á mínum óvinum.

## 55. Psalmur.

Ein undervísun Davids, fyrer ad syngia, á streingia hliódfære.

2. Heyr þú Gud! mína bæn, og byrg þig eigi fyrer minne grátbeidne.

3. Hygg ad mer, og bænheyr mig, hvernenn þad eg skelf aumlega og græt.

4. Af þvi ad óvinurenn hrópar, so, og hinn ógudhrædde adþreyngser, þviad þeir vilia gera mer eina hreckvíse, og eru mer ákaflega reider.

5. Mitt hiarta þreyngest í mínu líse, og daudans ótte er yfer mig fallenn.

6. Hrædsla og skiálfte er yfer mig komenn, og skelfingenn er yfer mig fallenn.

7. Eg sagde: æ! hefde eg vænge sem dúfa, so ad eg mætte fliuga, og vera einhvers stadar.

8. Siá þú! þá skyllde eg hafa

mig langt í burt, og í eydemørkenne blífa, Sela.

9. Eg skyllde mer flyta, so ad eg undan kæmest þeim storme og vedre.

10. Sundurþyckar ger þú tungur þeirra, Drottinn! lát þá forðiarfast, þviad eg se þráttan og hatur í stadnum.

11. Nótt og dag geingur soddan umkring hennar murvegge, mæda og erfide er þar inne.

12. Skada ad gera ríker þar fyrer innan, lygar og svik linna ei á hennar strætum.

13. Þott ad óvinur minn nidrade mer, þá villde eg þad umlída, og þó ad fiandmadur minn hotade mer, þá villde eg geyma mig fyrer hønum.

14. Enn þú ert minn lagsmadur, minn leidtoge og kunninge minn.

15. Vid sem vorum viner tilsamans ockar á mille, vid geingum í Guds húse tilsamans.

16. Daudenn falle skiotlega yfer þá, og ófannsliga þeir kviker í helvíte, þviad í þeirra heimelum hafa þeir eigi utan vondsku sín á millum.

17. Enn eg vil kalla til Guds, og mun Drottenn hiálpa mer.

18. Um kvølld, morgna, og middege vil eg kveina og gráta, þá mun hann heyra mína raust.

19. Hann frelsar sálu mína í frá þeim sem vilia til víd mig, og útvegar henne hvíld, þviad þeir eru marger á móte mer.

20. Gud mun heyra, og niðurlægia þá, hann ed blífur ad eylífu, Sela. Þviad ei verda þeir ødruvís, og þeir óttast eigi Gud.

21. Þviad sínar hendur leggia þeir á hans fridsama, og saurga hans sáttmála.

22. Þeirra munnur er kløckare enn smiør, og hafa þó stríd í sinne; þeirra ord eru miúkare enn vidsmiør, og eru þó nakenn sverd.

23. Fleyg þú uppá Drottinn þinne áhyggiu, og mun hann þer atvinnu veita, og ei mun hann hinn rettláta æfenlega láta óró hafa.

24. Enn Gud! þú munt steypa þeim nidur í þá diúpu grøfena, hiner blódgiørnu og flárádu munu ei fá sína lífdaga hálfnad; enn á þig vona eg.

## 56. Psalmur.

Gyllene klenodium Davids, af þeirre málausre dúfunne medal ókunnugra, þá Philistei gripu hann til Gath.

2. Gud! vertú mer nádugur, þviad mennerner vilia nidurføcka mer, daglegana þá strída þeir og þreyngia ad mer.

3. Míner óviner nidursøcka mer dagliga, þviad marger beriast á móte mer drambsamlega.

4. Nær ed eg em hræddur, þá treyste eg uppá þig.

5. Guds ord vil eg prísa, á Gud vil eg treysta, og eigi um mig hræddur vera, hvad skyllde hølldeb gera mer?

6. Þeir ástrída daglega mín ord: allar þeirra hugsaner eru, ad gera mer til vonda.

7. Þeir hallda tilsamans, og sitia til veide, og áthuga mín fótspor, hvernenn þeir fáe høndlad mína sálu.

8. Hvad illt sem þeir gera þá er þeim þegar fyrergefed, miskunarlaust steype Gud soddann mønnum nidur,

9. Reikna þú minn flotta, hell mínum tárum í þína fløsku, sennelega þá reiknar þú þau.

10. Þá munu míner óviner ver-

da til baka ad snúa, nær ed eg kalla þá fornem eg þad, ad þú ert minn Gud.

11. Guds ord vil eg prísa, orded Drottins vil eg prísa.

12. Á Gud vona eg, og em ei hræddur um mig, hvad kunna mer mennerner ad gera?

13. Því hefe eg, Gud! heited þer, þad eg vil þer þacker gera.

14. Þviad sálu mína hefir þú frelsad frá daudanum, fætur mínar í frá hrøsunenne, so þad eg má ganga fyrer Gude í liose lifande manna.

## 57. Psalmur.

Gyllene klenodium Davids, ad syngia fyrer (þad hann tortímdest eigi) þá hann flyde fyrer Saul í hellerenn.

2. Miskuna þú mer, Gud! miskuna þú mer, þviad á þig treyster sála mín, og under skugga þinna vængia þá hefi eg mitt athvarf, þar til ed sú ógæfann er umlidenn.

3. Eg kalla til Guds hins hæsta, til þess Guds hver ed á minne eymd gerer einn enda.

4. Hann sender af himnum ofan, og hiálpar mer út af þeirra forsmán, sem fóttroda mig, Sela, Gud hann sender sína miskun og trúfeste.

5. Eg ligg med minne sálu medal leona, mannanna børn eru elldsins loge, þeirra tennur eru spiót og ørfar, og þeirra tungur hvøss þverd.

6. Upphef þig, Gud! yfer himnana, og þína dyrd yfer alla verølldena.

7. Þeir egna net fyrer mína gaungu, og niddurþricka minne sálu, þeir grafa grøf fyrer mer, og falla siálfer þar í, Sela.

8. Mitt hiarta er reidubúed, Gud! mitt hiarta er reidubúed, þad eg synge og lofsege.

9. Uppvakna mín dyrd, vakna upp psalltare og harpa, árla vil eg uppvakna.

10. Drottinn! þer vil eg þacker gera medal folksins, þer vil eg lofsyngia á medal þiódanna.

11. Þviad þinn miskunseme er so víd sem himenenn er, og þinn sannleikur so vídur sem skyen ganga.

12. Upphef þig, Gud! yfer himenenn, og þína dyrd yfer alla verølldena.

## 58. Psalmur.

Gyllene klenodium Davids, ad syngia fyrer, ad hann glatadest ei.

2. Erud þer þá málluaser, ad þer vilid eigi tala rettlindenn, og dæma hvad rettvíslegt er, þer mannanna børn!

3. Mothróanlega gered þer ranglindenn í landenu, og erud fullfúser med ydrum høndum til illskuverkanna.

4. Hiner ógudhræddu eru fráleiter þegar í frá módurlífe, þeir liúgendur fara villt í frá módurlífe.

5. Þeirra æde er so sem høggormsins æde, so sem einn daufur eitur-ormur, sem tilbyrger sitt eyra.

6. So þad hann heyre eigi hliód tøfrarans, þess særingar-mannsins, sem vel kann ad særa.

7. Gud! í sundurbriót þeirra tennur í þeirra munne: í sundurmola þú, Drottinn! jaxla tennur þeirra úngu leonanna.

8. Þeir munu forganga sem vatn þad er í burtu flytur; þeir sétia til hæfis med sínum pílum, enn þær bresta í sundur.

9. Þeir forganga, sem snygellenn bodnar nidur, líka sem ótídugur

burdur kvinunnar, þá siá þeir eigi sólena.

10. Adur enn bad ydrir þyrnir eru fullværner á þyrnebuskenum, þá mun þín reide svipta þeim í burtu so ferskum.

11. Hinn rettvíse mun glediast, þá ed hann ser soddann hefnd, og mun lauga sínar fætur í blóde hins ógudlega.

12. So bad fólked mun seigia: hinn rettferduge hefir sín not. Gud er enn nú dómare á jørdunne.

## 59. Psalmur.

Gyllene klenodium Davids (ad hann glatadest eigi) þá Saul sende og let geyma hans hús til ad dreva hann.

2. Drottinn! frelsa mig í frá óvinum mínum, og hlíf mer fyrer þeim sem setia sig upp ímóte mer.

3. Frelsa þú mig frá þeim illrædis mønnum, og hiálpa mer í frá þeim blódgyrugu.

4. Þviad siá þú Drottinn! þeir umsitia mína sálu, hiner sterku safnast ímóte mer, fyrer utan minn tilverknad og misgerning.

5. Þeir hlaupa án míns tilverknadar, og búa sig út, rís upp og kom til móts vid mig, og siá þú þar til.

6. Þú Drottinn! Gud Zebaoth! Gud Israels! vakna upp, og vitia þeim allra heidingia, vert eigi neinum miskunsamur af þeim sem so illmannlega breyta, Sela.

7. Á kvølldtíma láttu þá einnenn aptur yla sem hunda, og í stadnum umkring hlaupa.

8. Siá þu! þeir þvætta sín á mille, sverd eru í þeirra vørum, hver skyllde heyra þad?

9. Enn þú Drottinn! munt hlæa ad þeim, og ad háde hafa allar heidnar þióder.

10. Fyrer þeirra magt þá helld eg mig ad þer, þvíad Gud er minn verndare.

11. Gud hann tiáer mer ríkuglegana sína miskunseme; Gud lætur mig siá mína villd á mínum óvinum.

12. Ihelslá þá eigi, so ad mitt folk forgleyme þvi ei, enn í sundurdreif þeim med þinne magt, Drottinn vor Skiølldur! og steyp þeim nidur.

13. Lærdomur þeirra er ei utan synd, og í sinne drambseme blífa þeir samt, og predika eigi nema bølvan og lygar.

14. Afmá þú þá án allrar miskunar, afmá þú þá so ad þeir seu ecke, og formerke þad, ad Gud se stiornare yfer Jacob í allre verølldu, Sela.

15. Ad kvøllde lát þú þá þar aptur einnenn yla sem hunda, og umkring hlaupa í stadnum.

16. Lát þú þá hingad og þangad epter matnum renna, og møgla nær ed þeir verda ei metter.

17. Enn eg vil út af þinne magt syngia, og ad morgne prísa þína miskunseme, þviad þú ert mín hlífdar-vernd, og athvarf í minne neyd.

18. Þer, minn Gud! vil eg lofsyngia, þviad þú Gud ert mín verndar-hlíf, og minn nádugur Gud.

## 60. Psalmur.

1. Eitt gyllene klenodium Davids, fyrer ad syngia, út af þvi gullega rósar niste, ad læra. 2. Þá hann hafde barest vid Syros af Mesopotamia, og vid þá Syros af Zoba, þá ed Joab snere aptur, og sló þá Edomita í Salltdalnum, tolf þusunder.

3. Gud! þú sem hefir í burt rek-

ed og í sundurdreist oss, og reidur varst, hugga þú oss aptur.

4. Þu sem jørdena hefir skeked og í sundur hrist, lækna þú hennar sprungur sem so er nidurhrunenn.

5. Þviad þínu fólke audsyner þú hardt (atlæte) þann víndryck gafstu oss, ad ver tumbudum um koll.

6. Enn eitt teikn hefir þú gefed þeim sem þig óttast, hvert þeir upp settu, og gerdu sig þá ugglausa, Sela.

7. Uppá þad þíner ástviner frelsader verde, þá hiálpa þú nú med þinne hægre hende, og bænheyr oss.

8. Gud hann talar í sínum helgedóme, þess hins sama gled eg mig, og eg vil sundurskipta Sichem, og mæla dalenn Suchoth.

9. Gilead er minn, minn er Manasse, Ephraim er magt míns høfuds, Juda er minn høfdinge.

10. Moab er mitt þvætteker allð, minn skó útrette eg yfer Edom, Philistea syngur mer sigur-óp.

11. Hver mun vilia flytia mig út í eina ørugga borg? hver mun í burtleida mig allt í Edom.

12. Muntu Gud! eigi gera þad, sem oss hefir fordrifed? og þú Gud fer ei út med vorum her!

13. Veit þú oss fullting í hørmungenne, þviad mannsins hiálp er engu nyt.

14. Med Gude vilium ver hreystiverk vinna, hann mun vora óvine undertroda.

## 61. Psalmur.

Einn Psalmur Davids, fyrer ad syngia, á hliódfære.

2. Heyr þú Gud! mitt kall, og hygg ad minne bæn.

3. Her nidre á jørdu kalla eg til þín, nær ed mitt hiarta er í angist, ad þú villder færa mig upp á hátt biarg.

4. Þviad þú ert mitt trúnadar traust, einn øruggur turn fyrer mínum óvinum.

5. Eg vil búa í þinne tiallðbúd æfenlega, og vona under þínum vængium, Sela.

6. Þviad þú Gud heyrer mín heit, þú launar þeim vel sem þitt nafn óttast.

7. Þú gefur einum konunge langa lífdaga, so þad hans ár vara ætíd framar og framar.

8. So ad hann ætíd site fyrer Gude. Audsyn hønum miskun og sannleik sem vardveite hann.

9. Þá vil eg þínu nafne lofsyngia eylíflega, so ad eg giallde mín heit daglegana.

## 62. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer Jeduthun, ad syngia fyrer.

2. Mín sál hefir hliodt um vid Gud, þann er mer hiálpar.

3. Þvi hann er minn stirkur, mitt hiálpræde, mín vernd, so þad ecke ófall fái mer um kollkastad, hversu stort sem þad er.

4. Hversu leinge þá veited þer aller einum umsátur, ad þer íhelsláed hann, líka sem einum hnignudum vegg, og í sundurrisnudum múr?

5. Þeir hugsa ad eins hvernenn þeir fáe nidurkæft hann: þeir leggia kapp á lygarnar; tala fagurt med munnenum, enn bølva í hiartanu, Sela.

6. Enn mín sála hún vonar uppá Gud alleinasta, þviad hann er mín von.

7. Hann er mitt traust, mín hiálp, og mín hlíf, so ad eg mun ei falla.

8. Hiá Gude er mitt hiálpræde,

mín dyrd, mín stirktar=hella, mitt athvarf er til Guds.

9. Voned á hann alla tíma godt fólk, útausid ydrum hiörtum fyrer hönum, Gud hann er uort traust, Sela.

10. Enn mennerner eru þó ecke; mikelmennenn þau bregdast einn: enn, þeir vega minna enn ecki par, so marger sem þeir eru.

11. Treystied eigi uppá órettindum og ránglæted, halldeð ydur eigi til slíks, sem ecke er; vile ydur rík dómur til, þá heingeð eigi hiartad þar vid.

12. Gud hann hefir mællt eitt ord, þad sama hefi eg nockrum sinnum heyrt, þad ad Gud alleinasti se máttugur.

13. Og þú Drottinn ert miskunsamur, og endurgelldur einum serhverum epter því sem hann hefir verdskulldad til.

## 63. Psalmur.

Psalmur Davids, þá hann var í eydemørku Juda.

2. Gud! þú ert minn Gud! árla vakna eg til þín; mína sál þyrster epter þer, mitt holld þad langar til þín í þurru og þríforugu lande þar ecke vatn er.

3. Þar í þeim stad horfe eg epter þer, í þínum helgedóme, viliande giarnan siá meiga þína magt og dyrd.

4. Þviad þín miskun hún er betre enn lífed, mínar varer þær lofa þig.

5. Þar í þeim stad villda eg feigenn lofa þig mína lífdaga, og í þínu nafne mínar hendur upphefia.

6. Þad være minn hiartans føgnudur, og unadsemd, ad eg þig med gladværum munne lofa skyllde.

7. Nær ed eg legg mig til sængur, þá þeinke eg til þín, nær ed eg vakna, þá tala eg um þig.

8. Þvíad þú ert minn hiálpare, og under skugga þinna vængia glediunst eg.

9. Mín sála hún áheinger þer, þín hægre hønd hún vid magt helldur mer.

10. Enn þeir sækia epter minne sálu, til ad yferfalla mig, þeir munu fara burt under jørdena.

11. Þeir munu falla under sverded, og refunum ad hlutskipte verda.

12. Enn konungurenn gledur sig í Gude, hver ed vid hann sver, hann mun prísadur verda, þviad lygaranna munnar munu uppstoppader verda.

## 64. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

2. Heyr þú Gud! mína raust í minne kløgun, vardveit mitt líf fyrer þeim ognarlega óvine.

3. Skyl þú mer fyrer samkundum þeirra illskufullu, fyrer flocke þeirra illgerda manna.

4. Hverer ed sína tungu hvetia sem sverd, þeir ed med sínum eitrudum ordum so skióta til hæfis sem med pílum.

5. Ad þeir heimuglega skióte þá frómu, skyndelega þá skiota þeir þá án alls ótta.

6. Diarfer eru þeir med sínar vondslegar rádagerder, og segia: hversu þeir vilia snørur leggia, og segia: hver kann ad siá þær?

7. Þeir dickta skálka pør, og hylia þau heimuglega; eru forslegner og hafa kyndugleg illskupør.

8. Enn Gud mun skyndelega skióta þá, so ad þeim mun dátt vid verda.

9. Þeirra eigenn tungur munu

fella þá, so ad hver sem þá ser mun gera skøll ad þeim.

10. Og aller þeir menn sem þad siá, þeir munu seigia: Gud hefir þad gørt, og formerkia, ad þad sama er hans verk.

11. Hiner rettferdugu munu gledia sig í Drottne, og treysta uppá hann, og øll godsús hiørtu munu hrósa ser þar af.

## 65. Psalmur.

Loffsaungs Psalmur Davids fyrer ad syngia.

1. 2. Gud! menn lofa þig í kyrrdum til Zion, og gialld a þer heitenn.

3. Þu heyrer bænernar, þar fyrer kemur allt holld til þín.

4. Vorar misgerder þvinga oss hardlega, þú villder vorar synder fyrergefa.

5. Sæll er hann, sem þú útvelur, og lætur koma til þín, ad hann bygge í þínum forgarde, sá hefir ríkuglegt traust af þínu húse, þínu heiløgu mustere.

6. Heyr þú oss epter þinne furdulegre rettvíse, Gud vor heilsugiafare! þú sem ert traust allra þeirra á jørdu eru, og þeirra þar langt í burt vid siáfarhafed.

7. Hann sem fiøllenn setur stødugt í sínum krapte, og er útbúenn med magtenne.

8. Þú sem stiller grenian siáfarins, grenian bylgnanna, og þann ødegang þiódanna.

9. So ad þeir sem í þeim sømu takmørkum byggia eru hrædder af þínum teiknum, þú gerer lystelegt allt hvad sig hrærer, bæde á morgna, og so á kvølld.

10. Þú vitiar landsins, og vøkuar þad, og audgar þad nærsta, Guds uppsprettu brunnur hefir nóglegt vatn, þeirra korn þá lætur þú tíngast, þvíad so uppbygger þú landed.

11. Þú døggar þess akurreinar, og væter þad, sem plægt er, medur døggenne myker þú þad, og blessar þess gróda.

12. Þú krýnar áred med þinne godgyrne, og þín fótspor driupa af feite.

13. Byggdenn í eydemørkenne er einnenn feit, so ad hún dryppur, og hólarner eru umhverfess lysteleger.

14 Um vølluna er fullt med saudfe, og dalerner standa þickvaxner af korne, so ad menn glediast og syngia.

## 66. Psalmur.

Einn lofkvædis Psalmur, ad syngia fyrer.

1. 2. Synged hátt lof Gude øll lønd, synged lof til dyrdar hans nafne, prísed hann dyrdlega.

3. Seged til Guds: hversu dásamleg eru þín verk? þad mun þínum óvinum bregdast, fyrer þinne mikelle magt.

4. Øll lønd tilbide þig, og lofsynge þer, synge lof þínu nafne, Sela.

5. Komed hingad, og siáed verkenn Guds, sem só furdanlegur er med sínum verkum, medal mannanna barna.

6. Hann umsnyr hafenu í þurrlende, so ad sá fótgangande má yfer vatned ganga, vegna þess hins sama þá gledium ver oss í hønum.

7. Hann drottnar med sínu velldе eylíflega; hans augu líta á fólked; hiner fráføllnu munu eigi kunna ad upphefia sig, Sela.

8. Þer fólk! lofed vorn Gud, láted hans lofgerd vídt hlióma.

9. Hann ed sálum vorum helldur vid lífed, og lætur eigi fætur voran skridna.

10. Þviad Gud! þú hefir reynt oss, og profad, so sem þá silfred verdur klárad.

11. Þú hefir láted kasta oss í turnenn; þú hefir á vorar lendar eina byrde lagt.

12. Þú hefir láted mennenna fara yfer vort høfud, ver høfum komed í elld og vatn, enn þú útleidder og endurnærder oss.

13. Þar fyrer vil eg med brenneoffre ganga í þitt hús, og giallda þer mín heit.

14. Líka so sem eg hefe mínum vørum til upplokeð, og þad minn munnur hefir talad í minne ánaud.

15. Feitar brennefórner vil eg færa þer af brenndum hrútum, naut og hafra vil eg offra, Sela.

16. Komed hingad, heyred til, aller þer sem óttest Gud! eg vil frammtelia hvad hann hefir gert vid mína sálu.

17. Til hans kalla eg med mínum munne, og eg heidra hann med minne tungu.

18. Ef ad eg hefda rangann ásetning í mínu hiarta, þá munde Drottinn eigi heyra.

19. Þar fyrer þá bænheyrer Gud mig, og hyggur ad minne grátbeidne.

20. Lofadur se Gud, sá ed eigi burtskúfar minne bæn, og eigi burtsnyr sinne miskun frá mer.

## 67. Psalmur.

Einn loffsaungs Psalmur fyrer ad syngia med streingialeik.

2. Gud se oss miskunsamur, og blesse oss, hann láte sitt andlit skína yfer oss, Sela.

3. So ad ver á jørdu þeckium hans vegu, á medal allra heidinna þióda hans hiálpræde.

4. Gud! þer þackar fólked, þer þackar allt folk.

5. Fólked gledur sig og fagnar, þad þú dæmer fólked rettvíslega, og stiórnar lydnum á jørdu, Sela.

6. Gud! þer þackar fólked, þer þackar allt fólk.

7. Landed gefur sinn ávext, blessa oss, Gud! vor Gud!

8. Blesse oss Gud! og øll verølldenn óttest hann.

## 68. Psalmur.

Loffsaungs Psalmur Davids, fyrer ad syngia.

1. 2. Gud hann hreise ser upp, so þad hans óviner sundurtvistrader verde, og þeir ed hann hata, þá flye fyrer hønum.

3. J burtdrif þá, so sem þad reykurenn í burtdrifenn verdur, líka sem vax þad brádnar fyrer ellde, so hlióta hiner ómilldu ad fyrerfarast fyrer Gude.

4. Enn hiner rettferdugu munu sig gledia, og fagna fyrer Gude, og út af hiarta glediast.

5. Synged Gude, loffsynged hans nafne, gered þeim greidann veg sem hoglega her framm fer, Drottinn er hans heite, og gleded ydur fyrer hønum.

6. Hver ad er fader føburlausra, og dómare ecknanna, hann er Gud í sínu heilaga heimele.

7. Einn Gud sem hinum einmana gefur fullt hús barna, hver hina faungudu útleider í rettann tíma, og lætur hina affrællnu blífa á þurrlende.

8. Gud! þá tíd þú fórst framm fyrer þínu fólke, þá ed þú gekkst áframm á eydemørkenne, Sela.

9. Þá skalf jørdenn, og himnarner drupu fyrer þessum Gude á Sinai, fyrer þeim Gude sem Israels Gud er.

10. Enn nú gefur þú Gud! eitt

nádarlegt regn, og þína arfleyfd, sem þornud er, endurlífgar þú.

11. So ad þín dyr meige þar inne búa, Gud! þú nærer hinn fáráda med þínum auðæfum.

12. Drottinn hann gefur orded med miklum skara evangelistanna.

13. Konungarner herskarans eru sín á mille viner tilsamans, og húsprydenn skipter út herfángenu.

14. Nær ed þer ligged med lidenu til hernadar, þá liómar þad lika sem vænger dúfunnar, þeir ed leiptra sem silfur og gull.

15. Nær ed sá hinn almáttuge nidursetur her og þar konunga þeirra á mille, þá verdur þar biart sem myrkt er.

16. Fialled Guds er eitt friosamt fiall, eitt miked og friosamtfiall.

17. Hvad stöcked þer stóru fioll? Gud hann lyster ad búa á þessu fialle, og Drottinn verdur þar ætíd.

18. VagnarGuds eru mørg þusundsinnum þusund, Drottinn er á medal þeirra á því heilaga Sinai.

19. Þú ert í hædena uppfarenn, og hefir herleidinguna ad herfánge leidt, þú hefir giafer ødlast mønnunum til handa, einnenn fyrer þá hina affollnu, so ad Gud Drottinn mun þó samt þar í þeim stad búa.

20. Daglega se Drottinn lofadur. Gud leggur þunga á oss, enn hann hiálpar oss og einnenn, Sela.

21. Ver høfum einn Gud, sá er hiálpar, og þann Drottinn Drottinn, sem af daudanum frelsar.

22. Enn Gud hann mun í sundur meria høfud sinna óvina, og þeirra hvirfel sem framm fara í sínum syndum.

23. Þó seiger Drottinn: á medal þeirra feitingianna vil eg sækia nockra; út úr diúpe siáfarins vil eg nockra sækia.

24. Þar fyrer mun þinn fótur í blóde óvinanna litadur verda, og þiner hundar munu sleikia þad.

25. Gud! menn siá hvar þú frammfer, hvar þú, minn Gud og konungur! frammbrunar í helgedómenum.

26. Saungararner þeir ganga fyrst undan, þar nærst spilmennerner medal meyanna, sem á bumburnar beria.

27. Lofed Gud Drottinn í samkundum, fyrer þann brunnenn Israel.

28. Þar á mille þeirra drottnar sá litle Benjamin, høfdingiarner Juda med þeirra hóp, høfdingiarner Sebulon, høfdingiar Nephthali.

29. Þinn Gud hefir þitt ríke uppreist, þad hid sama þá villder þú Gud efla fyrer oss, þviad þad er þitt verk.

30. Fyrer þíns musteris saker til Jerusalem, þá munu kongarner færa þer gáfur.

31. Straffa þú þad kvikended í reyrnum, þann flock uxanna á medal sinna kalfa, þeirra sem fóttroda vilia fyrer peninga saker: hann sundurdreifer fólkenu, sem giarnan vill strída.

32. Høfdingiarner af Egyptalande munu koma; Morland mun sínar hendur útbreida til Guds.

33. Þer konunga ríkenn á jørdu! synged Gude, lofsynged Drottne, Sela.

34. Þeim sem þar framm fer á himnum allavegana í frá upphafe, siá! hann mun sínum þrúmum krapt gefa.

35. Gefed Gude magtena, hans dyrd er í Israel, og hans magt í skyunum.

36. Dádsamur er Gud í sínum helgedóme, hann er Gud Israels,

hann mun magt og krapt gefa fólkenu: lofadur se Gud.

## 69. Psalmur.

Psalmur Davids, fyrer ad syngia, af rósenne.

1. 2. Gud! hiálpa þú mer, þviad vatned geingur inn ad minne sálu.

3. Eg søck nidur í diúpann saur, þar ed eingenn botn er, eg em í diúpu vatne, og flóded vill drecka mer.

4. Eg hefe hrópad mig móðann, minn háls er hás, sýnenn forgengur; þad eg so leinge hlyt ad bída epter mínum Gude.

5. Þeir ed mig hata án sakar, þeir eru fleyre enn eg hefe hár á høfde. Þeir sem eru míner óviner ótilbærelega, og skada mig, eru megtuger, eg vard ad borga þad sem eg rænte eigi.

6. Gud! þú veitst mína heimsku, og mínar skullder eru eigi duldar fyrer þer.

7. Lát þá eigi til skammar verda á mer, sem vænta þín, Drottinn Drottinn Zebaoth, lát þá ei af skømm rodna á mer, sem leita þín Gud Israels!

8. Þviad þinna vegna ber eg forsmán, mit andlit er fullt af smánun.

9. Eg em framande vordenn mínum brædrum, og ókunnugur børnum minnar módur.

10. Þviad vandlæting fyrer þitt hús hefir eted mig, og smáner þeirra sem þig smána falla yfer mig.

11. Og eg græt og fasta þeisklegana, og þar verdur þar ad auk gert gys ad mer.

12. Eg færde mig í seck, enn þeir gerdu spe ad þvi.

13. Þeir sem í portunum sitia ræda um mig, og vid ølbryckiurnar kveda menn um mig.

14. Enn eg, Drottinn! bid til þín, á hagkvæmelegum tíma, Gud fyrer mikeleik miskunar þinnar, þá heyr þú mig med þinne trúfastre hiálp.

15. Hiálpa þú mer burt úr þeim saurendunum, so ad eg søckve eigi nidur, ad eg frelsadur verde í frá þeim sem mig hata, og úr diúpum vøtnum.

16. So ad vatns-flóded drecke mer eigi, og diúped svelge mig ei, og ad gaped pyttsins lúkest ei saman yfer mig.

17. Bænheyr þú mig, Drottinn! þvi þín miskun er huggunarsamleg, snú þú þer til mín epter mikeleik miskunsemda þinna.

18. Og hyl eigi andlit þitt fyrer þióne þínum, þviad eg kvelst, heyr þú mig snarlega.

19. Nálgastu sálu mína, og frelsa þú hana, frelsa mig fyrer minna óvina saker.

20. Þú veitst mína forsmán, skømm og hneisu; míner mótstødumenn aller eru fyrer þer.

21. Forsmánenn brytur mitt hiarta, og kreinker mig: eg hugde ad, hvert ad nockurn aumkade þar yfer, enn þar er eingenn, og epter huggara, enn eg finn engann.

22. Og þeir gáfu mer gall ad eta, og edik ad drecka í mínum mikla þorsta.

23. Þeirra matbord þad verda fyrer þeim ad snøru, til endurgialds og til einnrar gildru.

24. Þeirra augu hlióte myrkvast verda, so ad þeir siáe ei, og lendar þeirra láta ætíd reika.

25. Utheltt þinne bræde yfer þá, og þín grimmdar reide hún høndle þá.

26. Þeirra bústadur verde í eyde, og ei se þar sá neinn ed búe í þeirra tialldbudum.

27. Þviad þeir ofsækia þann sem þú hefir lamed, og hælast um þad, ad þú leggur miog illa á þina.

28. Láttu þá hrasa í eina synd yfer adra, so ad þeir komest ei til þins retilætis.

29. Afskaf þú þá af bók þeirra lifendu, so ad þeir verde ei uppskrifader med rettferdugum.

30. Enn eg em fáradur og harmþrúngenn, Gud! þín hiálp hún vernde mig.

31. Nafned Guds vil eg prísa med einum loffsaung, og eg vil háleitlega heidra hann med þackargerd.

32. Pad mun Drottne betur þocknast, helldur enn einn uxe, sá ed hefir horn og klauser.

33. Hiner fáradu siá og gledia sig, og þeir ed Guds leita, á þeim mun hiartad lifa.

34. Þviad Drottinn heyrer hina fátæku, og fyrerlítur eigi sína bandingia.

35. Himnarner, jørdenn, og siørenn þá lofe hann, og allt hvad sig hrærer þar inne.

36. Þviad Gud hann mun hiálpa Zion, og borgernar í Juda uppbyggia, so ad menn bygge þar, og eignest þær.

37. Og sæded hans þióna mun hana erfa, og þeir, ed hans nafn elska, munu þar inne vera.

## 70. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia, til minningar.

2. Flyt þer Gud! ad frelsa mig, Drottinn! mer til hiálpar.

3. Skammest sín og ad skømm verde þeir ed sækia epter minne sálu, hlióte þeir ad snúast tilbaka, og verda til skammar sem óska mer ills.

4. Ad þeir verde til skammar aptur, þeir sem þar kalla yfer mer, siá þar! siá þar!

5. Fagne þeir og gledest í þer aller, sem ad þer leita, og þeir ed þitt hiálpræd elska, og med jafnade segia: háleitlega se Gud lofadur.

6. Enn eg em fátækur og aumur. Gud! flyt þú þer til mín, þviad þú ert minn hiálpare og lausnare, minn Gud dvel þú eigi!

## 71. Psalmur.

1. A þig Drottinn! treyste eg, lát mig alldrei til skammar verda.

2. Frelsa mig fyrer þitt rettlæte, og hiálpa mer út, hneig þitt eyra til mín, og hiálpa mer.

3. Vert þú mer ørugg hiálp, hvert eg meige flya ætíd, þú sem lofad hefir mer ad hiálpa, þviad þú ert mín hella og mín borg.

4. Minn Gud! hiálpa þú mer út af hende hinna ógudhræddu, af hende hins rangláta og tyrannans.

5. Þviad þú ert mitt traust, Drottinn Drottinn! mín von í frá ungdóme mínum.

6. A þig hefe eg treyst þegar í frá módurlífe, þú hefir mig útleidt af minnar módurlífe, minn lofstyr er ætíd út af þer.

7. Eg em mørgum ordenn ad undrun, enn þú ert mitt stirktartraust.

8. Lát minn munn þins lofs, og þinnar dyrdar fullann verda daglegana.

9. Burtkasta mer eigi í minne elle, yfergef mig eigi þá eg hrørna.

10. Þvi míner óviner mæla á móte mer, og þeir ed taka vara á minne sálu, þeir bera sín rád saman.

11. Og segia: Gud hefir yfer-

gefed hann, sæked epter og grýped hann, þviad þar er engenn frelsare.

12. Gud! vert eigi langt frá mer, minn Gud! flyttu þer mer til hiálpar.

13. Skammest þeir sín og fyrerfarest, sem eru á móte minne sálu: me. skömm og hneisu munu þeir yferskyggder verda, sem minnar ógæfu leitá.

14. Enn eg vil alltíd vóna, og vil alltíd auka þinn lofstyr.

15. Minn munnur skal kunngera þitt rettlæte, daglegana þitt hiálpræde; hvert eg kann ei allt upp ad telia.

16. J krapte Drottins þá geing eg framm, og prísa alleinasta þitt rettlæte.

17. Gud! þú hefir mig mentad í frá barndóme mínum, þar fyrer kunngere eg þínar dásemder.

18. Yfergef þú mig og ei, minn Gud! í ellene, nær ed eg tek gráhærdur ad verda, þangad til ad eg kunngere þinn armlegg barnabørnum, og þinn krapt øllum þeim ed enn nú koma skulu.

19. Gud! þitt rettlæte er hátt, þú sem stóra hlute gerer. Gud! hver er þer líkur?

20. Þvíad þú lætur mig rata í margar og stórar mannrauner, og endurlífgar mig aptur; og sæker mig aptur nedan úr diupe jardarennar.

21. Þú gerer mig mióg megtugann, og huggar mig aptur.

22. Þvi þacka eg þer einnenn med psálltara hliódfærum, fyrer þína trúfeste, minn Gud! eg syng þer lof á hørpuna, þú hinn heilage í Jsrael.

23. Mínar varer og sála mín, hvera þú hefir endurleyst, eru glādvær og syngia þer lof.

24. So yrker og einnenn mín túnga daglega um þitt rettlæte, þviad skammast meiga þeir sín, og til skammar verda þeir, sem minnar ógæfu leita.

## 72. Psalmur.

### Salomons.

1. Gud! gef þú konungenum þinn dóm, og þitt rettlæte kongsins syne.

2. Só ad hann leibe þitt fólk til rettlætesins, og frelsi þína fátæku.

3. Láttu fiøllenn fridenn færa á medal følksins, og hólana rettlæted.

4. Hann mun hallda þvi voladá fólkenu vid rettinn, og fátækum hiálpa, og løstunarmennena sundur mola.

5. Þig munu menn hræbast só lenge sem solenn og tungled vara, frá børnunum og til barna barnanna.

6. Ofan mun hann koma líka sem døggenn yfer ullar reyfed, so sem droparner þeir ed vøkua landed.

7. Á hans døgum mun blómgast sá hinn rettláte, og mikell fridur, þangad til ad tungled er ei meir.

8. Hann mun drottna frá einu háfenu til annars, og frá vatneuu, allt til verralldarennar enda.

9. Fyrer hønum kriúpa þeir sem á eydemørkunum eru, og hans óviner munu dupted sleikia.

10. Kongarner vid si-far-hafed, og þeir í eyunum, munu skeinkingar færa, kongar úr ríke Arabia og Seba munu giafer færa.

11. Aller konungarner munu tilbidia hann, aller heidingiar munu hønum þióna.

12. Þvíad hann mun frelsa hinn fátæka, þann ed kallar, og hinn fárada sem enga hiálp hefir.

13. Hann mun líknsamur vera hinum litelmagna, og volada, og sálum þeirra fátæku mun hann hiálpa.

14. Hann mun þeirra sáler út af svikrædenu og ófríkenu frelsa, og þeirra blód mun dyrmætt hallded verda fyrer hønum.

15. Hann mun lifa, og menn munu hønum gefa af gullenu úr ríke Arabia, og alltíd munu menn fyrer hønum tilbidia, daglegana munu menn lofa hann.

16. A jørdunne ofan á fiøllunum mun korned þickt standa, þess ávøxtur mun bifa sem Libanon, og friofgast í Stødunum, sem grafed á jørdu.

17. Hans nafn mun blífa æfenlega, so lenge sem þad solenn varer, þá mun hans nafn ná til eptterkomendanna, og þeir munu blessader verda fyrer hann, aller heidingiar munu hann vegsama.

18. Lofadur se Gud Drottinn, Gud Israels, hann sá ed alleina gerer dádsemdarverkenn.

19. Og blessad se hans dyrdarlega nafn eylíflegana, og øll lønd þau uppfyllest med hans dyrd, amen, amen.

20. Her endast bæner Davids, sonar Isai.

## 73. Psalmur.

Psalmur Assaphs.

1. Israel hefir enn nú huggun af Gude, hver sem ad eins hefir hreint hiarta.

2. Enn eg hafde nær hrasad med mínum fótum, mín ganga hafde ad mestu skridnad.

3. Þviad þad móðgadest mer vidur hina fiálshælnu, þá ed eg sá þad, ad hinum ógudhræddu veitte so vel,

4. Þviad þeir eru í engre daudans hættu, helldur standa þeir faster sem ønnur høll.

5. Þeir eru eigi í ógæfu sem annad folk, og verda eigi þvingader sem adrer menn.

6. Þar fyrer hlytur þeirra dramb kostulegt ad vera, og þad rangt þeir gera, þad hlytur ad kallast velgert.

7. Þeirra persóna þrútnar sem annar istrumage, þeir gera hvad helst þeir hugsa.

8. Þeir óvirda hlute, og leggia þar illt til, tala og lasta af hædenne.

9. Hvad þeir tala þá hlytur þad af himnum talad ad vera: hvad þeir segia, þad hlytur á jørdu magt ad hafa.

10. Þar fyrer feller alþydu-fólked sig vid þá, og rennur ad þeim hópum saman so sem vatn.

11. Og segia: hvad skyllde Gud hyrda um þá? hvad skyllde sá hinn hæsste skeyta um þá?

12. Siá þú! þad eru hiner ógudhræddu, þeir hafa lucku í verølldinne, og verda ríker.

13. Skal þad þá til einskis vera, ad mitt hiarta lifer óstraffanlega, og ad eg þvæ mínar hendur í sakleysenu.

14. Eg em þvingadur daglegana, og mín hegning er alla morgna þar.

15. Eg hafde ad mestu einnenn líka sagt, so sem þeir, enn siá þú, þar med, þá hefde eg fordæmt øll þín børn, sem nockurn tíma vered hafa.

16. Eg hugsade um þad, hvert ad eg gæte skiniad þad, enn þad var mer ofþungt.

17. Allt þar til eg geck inn í helgedómenn Guds, og hugde ad þeirra æfelokum.

18. Enn þú setur þá uppá hid hála, og steyper þeim nidur í grúnn.

19. Hvernen verda þeir so skyndelega ad engu? þeir forganga, og taka einn enda med skelfingu.

20. Líka sem einn draum, þá einn vaknar upp, eins þá gerer þú Drottinn! þeirra mind í borgenne forsmáda.

21. Enn þad angrar mig í hiartanu, og þad stíngur mig í mínum nyrum.

22. Þad eg hlyt einn gickur ad vera, og ecke ad vita, og verd so ad vera sem onnur skinlaus skepna fyrer þer.

23. Þó blíf eg samt med jafnade hiá þer, þviad þú helldur mer vid þína hægre hond.

24. Þú leider mig epter þínu ráde, og medtekur mig endelega til æru.

25. Nær ad eg hefe ad eins þig, þá hyrde eg ecke um himen og jord.

26. Þó ad einnenn mitt líf og sál vanmegnest, þá ertu þó Gud alla tíma mitt hiartans traust, og mitt hlutskipte.

27. Þviad siá þú, ad þeir sem frá þer víkia munu fyrerfarast; þú glatar þeim ollum sem hóraner drya á móte þer.

28. Enn þad er mín glede, ad eg helld mig til Guds, og set mitt traust á Drottinn, Drottinn, ad eg kunngere oll þín verk.

## 74. Psalmur.

Undervísun Asaphs.

1. Gud! hvar fyrer útdrífur þú oss so med ollu? og ert so grimmlega reidur vid saude þíns hag lendes.

2. Minnstu á þína samkundu, þad þú hefir fordum tíd útvegad, og þer til arfleifdar endurleyst, á fialled Zion, a hveru þú bygger.

3. Trod þú þá under fótum, og steyp þeim med ollu nidur í grunn, óvinurenn hefir alla hlute fordiarfad í helgedómenum.

4. Þíner mótstodu-menn grenia í þínum húsum, og setia sín skurgod þar inn.

5. Menn siá þad gliáer á axernar þar uppe yfer, so sem í skóge være hogged.

6. Og sundurhogga so allt þess snickara verk, med bílum og breidaxum.

7. Þinn helgedom brenna þeir upp, heimele þíns nafns saurga þeir nidur ad grunne.

8. Þeir segia í sínu hiarta: látum oss ræna þá, þeir uppbrenna oll Guds hús í landenu.

9. Vor teikn siáum ver eigi, og engenn prophete predikar nú lengur, og engenn lærefader kenner oss lengur.

10. Oh Gud! hversu lenge þá skal sá mótstandarenn brigsla? og sá óvinurenn svívirda þitt nafn so med ollu?

11. Hvar fyrer snyr þú þinne hende her frá, og þinne hægre hende so med ollu í burt frá þínu skaute?

12. Enn Gud er minn kongur þegar frá ondverdu, hann sá sem alla hiálp gerer, þá sem á jordu sker.

13. Þú í sundurskipter hafenu fyrer þinn krapt, og þú í sundurslær hofudenn drekanna í vatnenu.

14. Þú sundurslær hofud hvalfiskanna, og gefur þá til fædu fólke eydemerkurennar.

15. Þú letst út renna brunna og læke, þú letst uppþorna hin stríðu vatnsfollenn.

16. Dagurenn og nóttenn þau

eru þín, þú velldur því það bæde solenn og stiørnurnar hafa sinn vissann gang.

17. Þú setter serhveru lande sín landamerke: sumar og vetur gerer þú.

18. So minnstu á það, ad óvinurenn svívirder Drottinn, og það fávíslegt folk lastar þitt nafn.

19. Gef þú eigi dýrunum sáler þinna turtel-dúfna, og forgleym eigi þínum fátækum kyndumso med øllu.

20. Minnstu á sáttmálann, þviad landed er allavegana aumlega foreydt, og húsenn nidurbrotenn.

21. Lát þú eigi hina umkomulitlu med hneysu þar frá ganga, þviad hiner fátæku og voludu lofa þitt nafn.

22. Gud! bú þig til, og framm-fylg þínu málefne, hugleid þú þá forsmán sem þer af þeim fávísu daglega veitest.

23. Forgleym eigi hrópenu óvina þinna, þviad þysenn þinna mótstødu-manna verdur þess stærre sem lengur (álídur.)

## 75. Psalmur.

Psalmur og dicktur Asaphs, ad hann ei fyrerfærest, ad syngia fyrer.

1. 2. Ver þøckum þer Gud! ver þøckum þer, og kunngerum þínar dádsemder, ad þitt nafn er so nálægt.

3. Þviad á sínum tíma mun eg rett dæma.

4. Landed skelfur, og aller þeir ed þar inne byggia, enn þess stølpum helld eg fast, Sela.

5. Eg sagde til þeirra málskapsmiklu: hælest eigi so um, og til hinna ógudlegu: stæred ydur eigi út af magtenne.

6. Trásted eigi so hátt uppá ydra magt; taled eigi helldur reyngingslega.

7. Það hefir enga naud, hverke af austrenu, edur af vestrenu, ne af fiøllunum í eydemørkenne.

8. Þviad Gud er domarenn, hann ed nidurlæger einn, og upphefur annann.

9. Þviad Drottinn hefir einn bikar í hende og fullt skeinktann af sterku víne, og skeinker af þeim hinum sama, enn þeir ógudhræddu hlióta aller af ad drecka, og dreggarnar af ad súpa.

10. Enn eg vil kunngera eylíflegana, og lofsyngia Gude Jacobs.

11. Og eg vil allt valld hinna ógudlegu í sundurbrióta, so það vallded rettlátra upphafed verde.

## 76. Psalmur.

Psalmsaungur Asaphs, fyrer ad syngia á streingia hliódfære.

2. Gud er kunnugur í Juda, í Israel er hans nafn vegsamlegt.

3. Til Salem er hans tialldbúd, og hans heimele til Sion.

4. Þar sundurbrytur hann ørfarnar bogans, skiolld, sverd og strydsølld, Sela.

5. Herrlegre og megtugre ertu, helldur enn þau ránsfiølleun.

6. Hiner forsugu hlióta rænter ad vera, og ad sofna út af, og allt strídsfólked hlytur ad láta hendurnar stíga.

7. Af þinne straffan, Gud Jacobs! síga í svefn bæde hestar og vagnar.

8. Ognarlegur ertu, hver fær stadest fyrer þer, nær ed þú reidest?

9. Nær ed þú lætur doms adkvæded heyrast af himnum, þá skelfest jardríked og hlódnar vid.

10. Hvenær ed Gud tekur sig upp ad dæma, þad hann hiálpe øllum fáráđum á jørdu, Sela.

11. Nær ed mennerner æda í gegn þer, þá aſier þú vegsemdar; og þó þeir ólmest enn meir, þá ertu enn nú útbúenn.

12. Heited, og halldeð þad Drottne ydrum Gude, þer aller sem her íkring erud, færeð giafer þeim hrædelega.

13. Hann sem huglausa gerer høfdingiana, og hrædelegur er á medal kongánna á jørdu.

## 77. Psalmur.

Psalmur Assaphs fyrer Jeduthun fyrer ad syngia.

1. 2. Eg hrópa til Guds med mínne raustu, til Guds hrópa eg, og hann bænheyrer mig.

3. Á mínum mótgangstíma leita eg til Drottins, mín hønd er út rett á náttarþele, og lætur ei af, þviad sála mín vill sig eigi hugga láta.

4. Nær ed eg em hriggur, þá hugsa eg til Guds; nær mitt hiarta er í angist, þá tala eg, Sela.

5. Þu helldur mínum augum so þau vake, so máttlaus em eg, þad eg get eigi talad.

6. Eg þeinke á þa gømlu tímana, á þau fyrre árenn.

7. Á náttar tíma hugsa eg til míns hlíódfæris, og mæle vid mitt hiarta, minn ande skal rannsaka.

8. Mun þá Drottinn eylífslega forðrífa? og aunga líkn nú leingur audsyna?

9. Eda er nú hans miskunseme med øllu útgerd? og hafa fyrerheitenn teked enda?

10. Hefir Gud þá forgleymt nádugur ad vera, og sína miskunseme fyrer reide inne luckt? Sela.

11. Enn þó sagde eg: eg hlyt þad ad líða: hægre hønd hins hæsta kann øllu um ad breyta.

12. Þar fyrer hugleide eg verkinn Drottins, já! eg þeinke um þín enu fyrre furduverk.

13. Og tala um øll þín verk, og sege út af þínum gerningum.

14. Gud! þinn vegur er hellagur, hver er so volldugur Gud sem þú Gud ert.

15. Þú ert sá Gud, sem dádsemdar verkenn gerer, þú hefir auglyst þína magt á medal fólkfins.

16. Vollduglega hefir þú frelsad þitt folk, Jacobs og Josephs børn, Sela.

17. Vøtnenn þau sáu þig Gud! vøtnenn þau sáu þig og urdu angursfull, og underdiúpenn uppæstust.

18. Þau þicku skyenn helltu ofann vatne, skyenn gáfu reidarþrúmur so ad elldingar flugu framm.

19. Reidarþrúmur hliódudu af himne; þín leiptrìng skein yfer jørdena, so ad jardríked þad hrærdest vid, og hristest þar út af.

20. Þinn vegur var í siónum, og þinn gøtustígur í miklum vøtnum, og þín fótspor þecktust þó eigi.

21. Þú útleidder þitt fólk, svo sem eina sauda-hiørd, fyrer Moysen og Aaron.

## 78. Psalmur.

Undervísan Assaphs.

1. Heyr mitt folk mitt løgmál; hneiged ydar eyru til rædu míns munns!

2. Eg vil mínum munne uppluka til ordskvida, og þá hina gømlu tilburde út segia.

3. Sem ver høfum heyrt og vitum af, og vorer ferfedur hafa sagt oss.

4. So ver skylldum ei hylia þad

fyrer þeirra børnum sem epter koma, og kunngera lof Drottins, og hans magt og dádsemder, þær ed hann hefir gert.

5. Hann upphóf einn vitnis búrd í Jacob, og gaf eitt løgmál í Israel, hvert ed hann baud fedrum vorum ad kenna børnum sínum.

6. So ad epterkomenburner lærdu, og þau børnenn sem enn skylldu borenn verda, nær þau upp yxe, ad þau kunngerdu þad og so sínum børnum.

7. So ad þau settu sína von til Guds, og gleymdu eigi Guds verkum, og hallde hans bodord.

8. Og ad þeir verde eigi líka sem fedur þeirra, fráviken og óhlýdug ætt, hverrar hiarta þad eigi var fast, og þeirra ande hellt eigi trúlega vid Gud.

9. So sem þad Ephraims børn, þau ed bryniud bogann færdu, frá fellu á ófridar tímanum.

10. Sáttmálann Guds helldu þeir eigi, og í hans løgmále villdu þeir ei ganga.

11. Og þeir forgleymdu hans verkum, og hans dádsemdarverkum sem hann hafde audsyndt þeim.

12. Fyrer fedrum þeirra gerde hann furduverk á Egyptalande, á Zoans vøllum.

13. Hann í sundurskipte hafinu, og let þá þar í gegnum ganga, og sette upp vatned líka sem múrvegg.

14. Um dagenn, leidde hann þá med skyenu, enn á nóttum med biørtum ellde.

15. Hann í sundurklauf klettana í eydemørkenne, og gaf þeim vatn ad drecka yfergnæganlega.

16. Og hann let læke útrenna af hellunne, so ad þeir flutu ofann sem adrer straumar.

17. Þó syndgudu þeir enn framar meir á móte hønum, og til reide reittu hinn hæsta á eydemørkenne.

18. Og þeir freistudu Guds í sínum hiørtum, þad þeir heimtu fædslu fyrer sínar sáler.

19. Og mælltu á móte Gude, og søgdu: já! skyllde Gud kunna matbord tilbúa í eydemørkenne?

20. Siá þú! hann hefir ad sønnu helluna sleiged, so ad vatned flaut út, og lækerner dundu út. Enn hvernenn skal hann kunna braud ad gefa, og sínu fólke kiøt ad fá.

21. Þá ed Drottinn heyrde nú slíkt, gramdest hønum þetta, og elldur tók ad tendrast í bland Jacob, og reide kom yfer Israel.

22. Þad þeir trúdu eigi á Gud, og vonudu eigi uppá hans hiálpræde.

23. Og hann baud skyunum þar uppe, og upplauk dyrum himensins.

24. Og hann let rigna Man yfer þá til fædslu, og gaf þeim himnabraud.

25. Þeir átu einglabraudeð, hann sende þeim gnóglega fædslu.

26. Hann let blása austann vind under himnenum, og fyrer sinn krapt hrærde hann sunnann-vindinn.

27. Og let kiøte yfer þá rigna, so sem dupte, og fuglana sem sand hiá sió.

28. Og hann let þá allstadar nidur detta á millum herbúda þeirra, þar ed þeir biuggu.

29. Þeir átu þá og urdu aller offadder, hann let þá fá sína lyst.

30. Nær ed þeir høfdu nú haft sína lysting, og átu enn nú þar af,

31. Þá kom Guds reide yfer þá, og í hel sló þá ædstu af þeim, og drap þar nidur hina bestu í Israel.

32. Enn umframm allt þetta þá syndguduſt þeir enn framar meir, og trúdu eigi á hans dádsemdar-verk.

33. Þar fyrer let hann þá deya í burtu, ſo ad þeir ødluduſt ecke, og hlutu um alla ſína lífdaga plág-ader ad vera.

34. Nær ed hann deydde þá, leitudu þeir hans, og ſneru ſer árla til Guds.

35. Og þeir hugſudu, þad Gud hann være þeirra hiálp, og ſá hinn hæſte Gud þeirra frelſare.

36. Og þeir ſmiødrudu ad hønum med munne ſínum, og lugu ad hønum med ſínum tungum.

37. Enn þeirra hiarta var eigi faſt til hans, og eigi helldu þeir trúlega vid hans ſáttmála.

38. Enn hann var miſkunſamur og fyrergaf misgerdena, og afmáde þá eigi, og í burt ſnere optſinnes ſinne reide, og let eigi alla ſína reide frammganga.

39. Þvíad hann þeinkte á þad þeir være holld, og ſá vindur ed í burt lídur og eigi aptur kemur.

40. Miøg opt reittu þeir hann í eydemørkenne, og egndu hann til reide á eydeſtødunum.

41. Þeir freiſtudu Guds einatt aptur, og villdu kenna þeim heilaga í Iſrael.

42. Þeir minntuſt eigi á hans hønd, á þeim deige ed hann frelſade þá í frá óvinunum.

43. Hverſu hann hefde þá gert ſín teikn í Egyptalande, og ſín dádſemdar verk í landenu Zoar.

44. Þá ed hann umſnere þeirra vøtnum í blód, ſvo ad þeir gátu eigi úr ſínum lækium drucked.

45. Þá hann útſende medal þeirra illſkuormana ſem átu þá, og pøddurnar ſem fordiørfudu þá.

46. Og gaf þeirra ávøxtu þeim grasmødkum, og þeirra kornſæde eingeſprettunum.

47. Þá ed hann þeirra vínvidu medur hagle nidurſló, og þeirra mørbertre med froſte.

48. Þá ed hann med hagle nidur ſló þeirra fenad, og hiarder þeirra med elldenum.

49. Þá ed hann í ſinne heiptarbræde útſende illſku-einglana á medal þeirra, og let þá æda, og olmaſt og illt af ſer gera.

50. Þá ed hann let ſína reide frammganga og þirmde eigi ſálu þeirra fyrer daudanum, og let þeirra fenad í drepſott deya.

51. Þá ed hann ſló alla frumgetninga á Egyptalande, þá fyrſtu erfdina í byggdum Hams.

52. Og hann let ſitt fólk þadan burt fara ſem ſaude, og leidde þá ſem adra hiørd á eydemørkenne.

53. Og hann útleidde þá uggslauſt, ſvo ad þeir óttuduſt eigi, enn óvine þeirra hulde ſiórenn.

54. Og hann innleidde þá í ſín heiløgu landamerke, til þeſſa fialls ſíns, ſem hans hægre hønd hefir útvegad.

55. Og í burt dreif fólked fyrer þeim, og let þeim útſkipta arfleifdena, og let í þeirra hybílum Iſraelis ættkvíſler búa.

56. Enn þeir freiſtudu og reittu Gud hinn hæſta, og helldu eigi hans vitnisbúrde.

57. Og fellu aptur til baka, og forſmádu alla hlute, líka ſem fedur þeirra, og helldu eigi meir enn annar laus boge.

58. Og þeir reittu hann til reide med ſínum afgudum.

59. Og þá ed Gud heyrde þad, þá upptendradeſt hann, og forlægde Iſrael hardla miøg.

60. So ad hann yfergaf ſinn búſtad í Silo, þá ſína tialldbúd

þar ed hann inne byggde medal mannanna.

61. Og gaf þeirra magt í herleidingena, og þeirra vegsemd í hendur óvinarins.

62. Og yfergaf sitt fólk under sverdeð, og vard gramur sinne arfleifd.

63. Þeirra yngesmenn uppát elldurenn, og þeirra meyar hlutu ógiptar ad blifa.

64. Prestar þeirra fellu fyrer sverde, og þar voru þær engar eckiur, sem harma skylldu.

65. Og Drottinn hann vaknade upp so sem einn sofande, líka sem einn sterkur hrópar af glede, sem kemur frá vínenu.

66. Og hann sló sína óvine í bakhlutenn, og lagde á þá æfenlega skömm.

67. Og hann kastade í burt tialldbúd Josephs, og útvalde eigi ættkvísl Ephraims.

68. Helldur útvalde hann ættkvísl Juda, fialled Zion, hvert hann elskade.

69. Og byggde sinn helgedóm hátt, so sem þad land, hvert ed æfenlega skal fast standa.

70. Og hann útvalde sinn þión David, og tók hann í burt frá saudajötunum.

71. J burt frá þeim miolkande saudum tók hann hann, ad hann skyllde fæda Jacob hans fólk, og Jsrael hans erfd.

72. Og hann fædde þá einnenn med allre tryggd, og styrde þeim med allre kostgiæfne.

## 79. Psalmur.

### Psalmur Asaphs.

1. Gud! hiner heidnu eru innkomner í þína arfleifd, þitt hid heilaga mustere hafa þeir saurgad, og af Jerusalem steinhrúgu gert.

2. Líkame þinna þiónustumanna hafa þeir fuglum under himnenum til átu gefed, og holld þinna heilagra hrædyrum í landenu.

3. Þeir úthelltu blóde í kring Jerusalem, líka sem vatne, og þar var sá engenn sem jardade.

4. Vorum nágrønnum erum ver ad forsmán ordner, ad spotte og háde þeim sem í kring oss eru.

5. Drottinn! hversu leinge villt þú soølldungis reidur vera? og láta þitt vandlæte brenna sem elld.

6. Helltu þinne grimmd út yfer heidnar þióder, þær sem eigi þeckia þig, og yfer þau kongaríkenn sem ei ákalla þitt nafn.

7. Þviad þeir hafa Jacob uppeted, og hans hús í eydelagt.

8. Minnstu eigi á vorar umlidnar misgerder, miskuna þú oss snarlega, þviad ver erum miøg þunner ordner.

9. Hiálpa þú oss, Gud! vor hiálpare, fyrer dyrdar saker þíns nafns, frelsa þú oss, og fyrergef þú oss vorar synder, fyrer þíns nafns saker.

10. Þvi lætur þú hina heidnu segia: hvar er nú þeirra Gud? láttu medal heidingianna kunnuga vera fyrer vorum augum hefndena blóds síns þinna þiónustu-manna, þad sem úthellt er.

11. Lát fyrer þig koma andvarpan þeirra hinna fongudu, eptter þínum mikla armlegg, þá bívara þú þau børnenn daudans.

12. Og giald þú vorum nágrønnum siøfallt aptur í þeirra skaut, þeirra forsmáner, þar ed þeir hafa þig med lastad Drottinn!

13. Enn ver, þitt fólk, og saudar þíns haglendis, þøckum þér eylíflegana, og kunngerum þinn lofstír um alldur og æfe.

## 80. Psalmur.

Psalmur Asaphs út af rósarhistenu fyrer ad syngia.

2. Heyr þú hyrder Israels! þú sem gæter Josephs so sem sauda, audsýn þig, þu sem situr yfer Cherubim.

3. Uppvek þína magt, þú sem ert fyrer Ephraim, Benjamin og Manasse, og kom ofs til hiálpar.

4. Gud! hugga ofs, og lát líóma þitt andlit, þa munum ver vid rakna.

5. Drottinn, Gud Zebaoth! hversu leinge villtu reidur vera yfer bænum þíns lyds?

6. Þu fæder þá med harmabraude, og birlar þeim drick med stórum mæler fullum tára.

7. Þú setur vora nágranna ofs til þráttunar, og vorer óviner þeir gera spe ad ofs.

8. Gud Zebaoth! hugga ofs, lát þitt andlit lysa, þá hiálpumst ver.

9. Vínvid hefir þú af Egyptalande í burt flútt, og þá heidnu útreked, og innplantad þann hinn sama.

10. Fyrer hønum hefir þú veigenn gert, og lated hann gródurset iast, so hann hefir landed uppfyllt.

11. Fiøllenn eru hulenn med hans skugga, og med hans kvistum Cedrustren Guds.

12. Hans kvistu hefir þú útþaned allt til siófarins, og hans greiner allt til vatnsfallsins.

13. Hvar fyrer hefir þú þá hans gyrdingar niburbróted, so ad allt þad sem þar frammhiá gengur upprífur hann?

14. Villugellter hafa umvellt hønum, og þau villu dyrenn hafa hann fordiarfad.

15. Gud Zebaoth! snú þú þer þó vid, líttu af himnum, og siá þú þar til, og vitia þessa vínvidar,

16. Og hallt hønum vid magt, hvern ed þín hægre hønd hefir grødursett, og þann sonur ed þu hefir þer stadfastlega útvaled.

17. Hygg þar ad og straffa þad, so ad sú ellds-brennann og nidurbróted fáe einn enda.

18. Þín hønd hún vernde þad folk þinnar hægre handar, og þann mannsins son, sem þú stadfester þer.

19. So vilium ver þá eigi burt víkia frá þer, lát þú ofs líse hallda, so villum vex þitt nafn ákalla.

20. Drottinn Gud Zebaoth! hugga ofs, lát þitt andlit lysa, þá hiálpumst ver.

## 81. Psalmur.

Psalmur Asaphs, uppá Githith fyrer ad syngia.

1. 2. Synged gladlega Gude, sem er vor styrkur, synged hátt lof Gude Jacobs.

3. Taked psalmana, og fáed hingad bumburnar, lystelega hørpu med psollturunum.

4. Blásed í basununa á nymánudenum á vorre laufsskála hátíd.

5. Þvíad sodan er sidvenia í Israel, og einn rettur Guds Jacobs.

6. Soddan hefir hann til vitnisburdar sett medal Josephs, þá þeir útføru af Egyptalande, og heyrt høfdu annarlegt túngumál.

7. Þá eg hafde þunga burt svipt af þeirra herdum, og þeirra hendur urdu leystar af leirpottunum.

8. Þá ed þú ákallader mig í neydenne, hiálpade eg þer út þadann, og bænheyrde þig, þá ed storm-vedred yferfell þig, og eg reynde þig vid mótmælis-vatned, Sela.

9. Heyr þú mitt folk, eg vil vitnaá medal þín, Jsrael! þú skallt mer hlyda.
10. Ad á medal þín se engenn annar Gud, og þú tilbider engann annarlegann Gud.
11. Eg em Drottinn Gud þinn, sá ed þig hefir útleidt af Egypta-lande, luk þínum munne vídt í-sundur, og lát mig hann fylla.
12. Enn mitt folk hlyder ei minne raustu, og Jsrael skeiter mer eigi.
13. So hefi eg þá yfergefed í síns hiartans myrkre, ad þeir gange epter sínu ráde.
14. Ef ad mitt folk villde mer hlyded vera, og Jsrael ganga á mínum veige,
15. Þá villda eg snarlega nidurkefia þeirra óvine, og snúa minne hende yfer þeirra mótstødumenn.
16. Þeir ed Drottinn hata þeim skyllde þad bregdast á hønum, enn þeirra tíme munde vara æfenlega.
17. Og med þvi hinu besta hveite munde eg þá metta, og þá med þvi hunangenu út af hellunne sedia.

## 82. Psalmur.

Psalmur Asaphs.

1. Gud hann stendur í samkundu Guds, og er dómare á medal gudanna.
2. Hversu leinge viled þer rangléga dæma, og framar meta persónu hins ógudhrædda? Sela.
3. Láted hinu fáráda og fødurlausa rett ske, og hiálped hinum fátæka og naudþurftuga til reitarins.
4. Hiálped þeim hinum lítelmagna, og fátæka, og frelsed hann út af vallde hins ógudlega.
5. Enn þeir láta ser ei segast, og skeita þvi eigi, í myrkrunum ganga þeir ætíd, þar fyrer munu aller grundveller landsins niburhrynia.
6. Eg sagde od vísu: þer erud Guder, og aller saman børn hins hæsta.
7. Enn þer munud þó deya sem menn, og líka sem einn tyranne nidurfalla.
8. Gud! tak þig upp, og dæm landed, þviad þu ert arfherra yfer øllum heidingium.

## 83. Psalmur.

Loffaungs-Psalmur Asaphs.

1. 2. Gud! þeig ei þannenn, og vert eigi so þagmælskur, Gud! bindst þú þess ei so!
3. Þvi siá þú! ad þíner óviner æda framm, og þeir ed þig hata, hefia upp høfuded.
4. Þeir gera klóklegar rádagerder ímóte þínu fólke, og rádslaga móti þínum enum huldu.
5. Nú vel, seigia þeir: látum oss uppræta þá, so ad þeir seu ecke fólk, so ad nafnsins Jsrael verde ei lengur geted.
6. Þvíad þeir hafa sambunded rád innbyrdis, og sáttmál gert á móte þer.
7. Tialldbúder þeirra Edomita og Jsmaelita, þeirra Moabita, og Hagarita.
8. Þeirra Gebalita, Ammonita, Amalekita, þeirra Philistea med þeim af Tyro.
9. Assur hefir og sleiged ser til þeirra, og hiástod veitt børnum Loths, Sela.
10. Ger vid þá so sem vid þá Midianita, so sem Sissera, so sem Jabin hiá læknum Kison.
11. Þeir ed afmádust hiá Endor, og urdu ad saurindum á jørdunne.
12. Ger þú þeirra høfdingia so sem Oreb og Seb, alla þeirra yfermenn so sem Seba og Zalmuna.

13. Þeir ed þar segia: ver vil-
um husenn Guds eignast.
14. Gud! ger þá so sem einn
hvirfilvind, og líka sem hálmstrá
fyrer vinde.
15. So sem elldur, hver ad skóga-
na uppbrenner, og so sem þad
bál, hvert fiøllenn upptendrar.
16. Líka so ofsæk þú þá med
þínu stormvidre, og skelf þá med
þinne óvedráttu.
17. Uppfyll þeirra auglit med
forsmán, so ad þeir verde epter þí-
nu nafne adspyria.
18. Skammast blióte þeir sín,
og skelfast æ meir og meir, og til
skammar verde þeir, og fyrerfarest.
19. So munu þeir þeckia, þad
þú med þínu nafne heiter Drottinn
alleinasta, og sá hinn hæfste í allre
verølldinne.

## 84. Psalmur.

Psalmur barna Chore, uppá Gi-
thith fyrer ad syngia.
1. 2. Hversu elskulegar eru þínar
tialldbuder, Drottinn Zebaoth!
3. Sálu mína forleinger og treg-
ar epter forgarde Drottins: mitt
líf og sál gledur sig í þeim lifanda
Gúde.
4. Þvíad fuglenn hefir eitt hús
funded, og svalann sitt hreidur, til
ad utklekia í ungum sínum, sem er
þitt alltare, Drottinn Zebaoth,
minn kongur og minn Gud!
5. Sæler eru þeir, sem í þínu
húse byggia; þeir lofa þig þar æf-
enlega, Sela.
6. Sæler eru þeir menn, sem þig
hallda fyrer sinn stirkleika, og af
hiarta epter þer ganga.
7. Þeir ed í gegnum þann eymd-
ardalenn ganga, og gera þar brun
na, og þeir lærefedurner verda med
margfalldre blessan prydder.
8. Þeir ødlast hveria sigurvinn-
ing epter adra, so ad siást hlytur,
þad hinn rettelege Gud se til Zion.
9. Drottinn Gud Zebaoth! heyr
þú mína bæn, og lát þer hana skilí-
ast, Gud Jacobs! Sela.
10. Gud vor skiølldur! gæt ad,
álíttu ríked þíns hins smurda.
11. Þvíad einn dagur í þínum
forgarde er betre enn annars þus-
und: eg vil helldur vardveita dyr
í Guds míns húse, enn lenge ad búa
í tialldbúdum ógudlegra.
12. Því Gud Drottinn er sól
og skiølldur; Drottinn gefur nád
og heidur; hann mun eigi láta þá
frómu hafa skort á nockru gódu.
13. Drottinn Zebaoth! sæll er
sá madur, sem treyster uppá þig.

## 85. Psalmur.

Psalmur barna Chore fyrer ad
syngia.
2. Drottinn! þú sem ádur varst
miskunsamur þínu lande, og frels-
ader þá hina føngudu Jacobs.
3. Þú sem ádur fyrergafst mis-
gerdernar þínu fólke, og nidre byrg-
er allar þeirra synder, Sela.
4. Þú sem ádur aftókst alla þí-
na reide, og burtsnerer þer frá
grimmd þinnar bræde.
5. Hugg oss, Gud! vort hiálp-
ræde, og lát af þinne óvináttu
yfer oss.
6. Villtu þá æfinlega vera reid-
ur uppá oss, og láta þína reide
frammganga ætíd og alla tíma?
7. Villtu þá eigi endurnæra oss
aptur? so ad þitt fólk meige glebia
sig yfer þer.
8. Audsyn þú oss, Drottinn! þí-
na miskunseme, og hiálpa oss.
9. Mætte eg fá ad heyra, þad
Gud Drottinn hann talade, ad
hann fridenn tilsegde sínu fólke,
og sínum heiløgum, so ad þeir rotu-
du eigi í neina fávitsku.

10. Þó er hans hiálp þeim nálæg sem hann óttast, so þad dyrdenn búe í voru lande.

11. Ad miskunen og sannleikurenn mætest sín á mille, ad rettvísenn og fridurenn kysse hvert annad.

12. So ad tryggdenn vxe á jørdu, og rettvísenn af himne ofan sæe.

13. Ad Drottinn villde gera oss til góda, so ad vort land bere sinn ávøxt.

14. So þad rettvísenn blífe þó samt fyrer hønum, og fáe fullann frammgang.

## 86. Psalmur.

1. Drottinn! hneig þín eyru og bænheyr mig, þviad eg em vesæll og fátækur.

2. Vardveit þú sálu mína, þviad eg em heilagur, hiálpa þú, minn Gud! þræle þínum, sem treyster á þig.

3. Vertu mer nádugur, Drottinn! þviad daglegana kalla eg til þín.

4. Gled þú sálu þræls þíns, þviad epter þer, Drottinn! forlenger mig.

5. Þvíad þú, Drottinn! er gódur og líknsamur, og nærsta miskunsamur, vid alla þá ed þig ákalla.

6. Gef gaum, Drottinn! ad minne bæn, og hygg ad raustu minnar grátbeidne.

7. J neydenne kalla eg til þín, ad þú villder heyra mig.

8. Drottinn! engenn er þer líkur medal gudanna, og þar er ei sá neinn sem so kann ad gera sem þú.

9. Aller heidingiar, sem þú hefir skapad, munu koma og tilbidia fyrer þer, Drottinn! og þitt nafn dýrka.

10. Þad þú ert so mikell, og gerer dádsemdarverkenn, og ert alleina Gud.

11. Vísa þú mer, Drottinn! þína vegu, so ad eg gange í þínum sannleika. Vidhalltu mínu hiarta vid þad eina, ad eg óttest þitt nafn.

12. Eg þacka þer, Drottinn! Gud minn, út af øllu hiarta, og heidra þitt nafn eylíflega.

13. Þvíad þín miskunseme er mikel yfer mer, og mína sálu hefir þú frelsad út af þvi diúpa helvíte.

14. Gud! hiner dramblátu setia sig upp á móte mer, og sá flockur tyrannanna stendur epter minne sálu, og hefir þig eigi ser fyrer augum.

15. Enn þú, Drottinn Gud! ert miskunsamur og nádugur, þolennmódur, og mikellrar miskunsemdar og sannleika.

16. Snú þer til mín og miskunna mer; styrk þræl þinn med þinne magt, og hiálpa þú syne þinnar ambáttar.

17. Ger þú eitt teikn vid mig, ad mer vel gange, so þad siáe þeir ed mig hata, og skammest sín, þad þú, Drottinn! hiálpar mer, og huggar mig.

## 87. Psalmur.

Loffsaungur barna Chore.

1. Sterklega er hún grundvøllud uppá þvi heilaga fialle.

2. Drottinn hann elskar portenn Zions, framm yfer allar tialldbúder Jacobs.

3. Dyrdarleger hluter verda í þer predikader, þú borgenn Guds, Sela.

4. Eg mun Rahab og Babel predika láta, ad þær skulu kenna mig. Siá þú, Philistei og Tyri med þeim Morlendsku skulu þar fædder verda.

5. Til Zion mun sagt verda: þad allshåttader menn skule þar fæddер verda, og þad hann så hærste uppbygge hana.

6. Drottinn hann mun predika låta i allshåttudu tungumåle, so þad nockrer skulu þar einnenn fædder verda, Sela.

7. Og þeir saungararner, so sem i danse munu aller syngia i þer, einn sem annar.

## 88. Psalmur.

Psalmsaungur barna Chore, fyrer ad syngia, af veikleik þeirra aumu.

Undervísun Hemans Esrahiters.

1. 2. Drottinn! Gud minn hiálpare, á nóttu og deige kalla eg fyrer þer.

3. Mína bæn lát þú koma fyrer þig, hneig þín eyru til míns ákalls!

4. Þviad sála mín er full af eymd, og mitt líf þad tekur helvíte ad nálægiast.

5. Eg reiknast eins og þeir sem fara til helvítis, eg em líka sem så madur hver ed enga hiálp hefir.

6. Eg ligg medal þeirra frammlidnu yfergefenn, líka sem hiner íhel slegnu, þeir ed í grøfum liggia, hverra þú minnest eigi lengur, og þeir fráskilder eru frá þinne hende.

7. Þú hefir mig í grøfena niderlagt, í myrkred og diúped.

8. Þín grimmd þricker mer, og þú med øllum þínum vatnsflódum þreynger ad mer, Sela.

9. Mína vine hefir þú skiled langt frá mer, þu hefir láted mig þeim ad viddiod verda, eg ligg hertekenn og kann eigi í burt ad komast.

10. Mitt yferbragd er herfelegt af eymdar vesølld, Drottinn! eg kalla til þín daglega, til þín útbreide eg mínar hendur.

11. Muntu nockud medal daudra dádsemdarverkenn gera? eda munu hiner frammlidnu uppríßa og þacka þer? Sela.

12. Hvert munu menn í grøfunum frammtelia þína miskunseme? og þinn sannleik í fordiørfuneнne?

13. Meiga nockud þínar dádsemder í myrkrunum medkendar verda? edur þitt rettlæte í landenu, þar sem madur þeinker ecke?

14. Enn eg kalla til þín, Drottinn! og mín bæn kemur árla fyrer þig.

15. Hvar fyrer útskúfar þú, Drottinn! sálu minne, og byrger þitt andlit fyrer mer.

16. Eg em aumur og vanmegna, af þvi, ad eg em so burtrekenn: eg líd þína skelfing, so ad eg ervilnunst ad mestu.

17. Þín heiptarbræde gengur yfer mig, þín skelfing hún þvingar mig.

18. Daglegana umkringia þeir mig líka sem vatn, og slá hring íkringum mig tilsamans.

19. Þú velldur þvi, ad míner viner og náungar, og míner kunningiar taka sig langt í burt frá mer, fyrer þvilítrar eymdar saker.

## 89. Psalmur.

Undervísun Ethans Esrahiters.

2. Eg vil syngia af miskun Drottins eylíflegana, og þinn sannleik kunngera med mínum munne, um alldur og æfe.

3. Og segia so: ad ein eylífleg nád mun upp koma, og ad þú muner þinn sannleik tryggelega hallda á himnum.

4. Einn sáttmála hefe eg gert

vid mína útvalda, eg hefe svared mínum þión David.

5. Eg vil tilskicka þer sæde eylíflegana, og þitt tignarsæte uppbyggia um alldur og æfe, Sela.

6. Og himnarner munu, Drottinn! þínar dádsemder prísa, og þinn sannleik í samkundu heilagra.

7. Þviad hver má í skyunum Drottne samgillda? og á medal gudanna barna Drottne samlíkur verda?

8. Gud hann er miøg máttugur í samkundu heilagra, og furdanlegur yfer øllum þeim sem íkringum hann eru.

9. Drottinn Gud Zebaoth! hver er einn megtugur Gud so sem þú? og þinn sannleikur er íkringum þig.

10. Þú Drottnar yfer þeim ólgusama sió, þú stiller hans bylgiur nær ed þær upphefia sig.

11. Þú nidurslær Rahab til dauds; þu í sundurdreifer þínum óvinum med þínum stirktar armlegg.

12. Himenenn og jørdenn eru þín, jardarkringluna hefir þú grundvallad, og hvad þar er inne.

13. Nordred og sudred þá hefir þú skapad, Thabor og Hermon glediast í þínu nafne.

14. Þu hefir einn volldugleg ann armlegg; øflug er þín hønd, og há er þín hægre hønd.

15. Rettvíse og dómur eru þíns sætis stadfesting, miskun og sannleikur eru fyrer þínu auglite.

16. Sæll er sá lydur sem þá gledennar skemtun kann. Drottinn! í lióse þíns andlitis munu þeir ganga.

17. Yfer þínu nafne munu þeir gledia sig daglegana, og í þinne rettvíse dyrdleger vera.

18. Þviad hrósan þeirra stirkleiks ert þú, og fyrer þína milldemunt þú vort horn upphefia.

19. Þviad Drottenn er vor skiølldur, og sá hinn heilage í Israel er vor kongur.

20. Í þann tíma talader þú fyrer sióner til þinna heilagra, og sagder: eg hefe einn kappa uppvaked sá ed hiálpa skal; einn útvaldann af fólkenu hefe eg upphafed.

21. Eg hefe funded minn þión David, hann smurda eg med mínu heiløgu vidsmiøre.

22. Mín hønd skal vid magt halldа hønum, og minn armleggur skal stirkia hann.

23. Óvinerner skulu ei fá yferhønd yfer hønum, og hiner ranglátu skulu eigi nidurkefia hann.

24. Helldur skal eg hans mótstødumenn nidur fyrer hønum slá, og þá ed hann hata vil eg plága.

25. Enn minn sannleikur og miskunseme skal í hiá hønum vera, og hans horn skal í mínu nafne upphafed verda.

26. Hans hønd vil eg í sióenn setia, og hans hægre hønd í vøtnenn.

27. Hann mun nefna mig so, þú ert minn fader, minn Gud og stirkur, sá ed mer hiálpar.

28. Og eg vil gera hann frumgetenn son, allrahærstann medal kónunganna á jørdu.

29. Mína miskunseme vil eg eylíflega hallda vid hann, og minn sáttmále skal hønum stadfastur vera.

30. Eylíflega vil eg hønum sæde gefa, og hans stól stirkia æ medan himenenn varer.

31. Enn ef hans børn yfergefa mitt løgmál, og ganga eigi í mínum rettindum,

32. Ef ad þau vanhelga mínar

ficksaner, og hallda eigi mín bodord,

33. Þá vil eg þeirra synda vitia med hyrtingar-vende, og þeirra misgerda med plágum.

34. Enn minne miskun vil eg eigi frá honum snúa, og á mínum sannleika engann brest vera láta.

35. Minn sáttmála vil eg eigi vanhelga, og eigi umbreita því sem frammgenged er af mínum munne.

36. Eitt sinn hefi eg svared vid minn heilagleika, eg vil ey liúga ad David.

37. Hans sæde skal eylíft vera, og hans stoll líka sem sólenn fyrer mer.

38. So sem tungled þá skal hann bívarast eylíflegana; og líka so sem vottarner í skyunum eru óbrigdanleger, Sela.

39. Enn nú úthrinder þú, og burtkastar, og ert reidur vid þinn hinn smurda.

40. Þú niburbrytur sáttmála þíns þións, og fóttredur hans korónu nidur til jardar.

41. Þú niburbrytur alla hans múrvegge, og lætur hans fasta stade niburbrióstast.

42. Hann ræna aller þeir, sem framm hiá ganga, sínum nágrønnum er hann ad háde ordenn.

43. Hægre hønd hans mótstødumanna upphefur þú, og gledur alla hans óvine.

44. Svo hefir þú einnenn hans sverdsins krapt í burt teked, og lætur hann eigi vinna sigur í stríde nu.

45. Þú niburbrytur hans hreinlæte, og fleyger hans stól til jardar.

46. Þú styttir tímann hans ungdoms alldurs, og byrger hann med forsmán, Sela.

47. Drottinn! hversu lenge villt þú þannenn med ollu hylia þig, og þína heiptar reide sem elld brenna láta?

48. Hugleid þú hversu skammvinnt mitt líf er, hvar fyrer villtu alla menn til einskis skapad hafa?

49. Hver er sá nockur sem lifer og eigi ser daudann, sem sína sálu frelse út af helvítis hende? Sela.

50. Drottinn! hvar er nú þín fyrre miskun, sem þú hefir svared David í þinum sannleika?

51. Minnstu Drottinn á nidran þinna þiónustumanna, hvera ed eg ber í mínum barme, af ollu so mørgu fólke.

52. Hvar med þíner óviner nidra þer Drottinn, þar med þeir nidra fótsporum þíns hins smurda.

53. Lofadur se Drottinn eylíflegana, ámen, ámen!

## 90. Psalmur.

Bæn Mose Guds manns.

1. Drottinn Gud! þú ert vort athvarf, æ og alltíd.

2. Fyrr enn þad fiøllenn urdu og jørdann; og þad verølldenn var skøpud, ertu Gud frá eylífd til eylífdar.

3. Þú sem mannenn lætur í burt deya, og seger: komed aptur þer mannanna børn!

4. Því ad þusund ár eru fyrer þer sem sá dagurenn, ed í gær umleid, og so sem ein næturvaka.

5. Þú lætur þá burt lída sem annad rennande vatn, og þeir eru so sem svefn, líka sem gras þad ed þó snarlega visnar.

6. Hvert ed snemma blomgast, og skiótlega visnar, og ad kvøllde dags verdur upphøgged og uppþornar.

7. Þad sama gerer þín reide ad ver so forgøngum, og þín grimmd

þad ver hliótum so skyndelega í burt.

8. Þvíad vorar misgerder setur þú framm fyrer þig, vorar ovitanlegar synder í liós fyrer þínu augliti.

9. Þar fyrer í burt líða aller vorer dagar fyrer þinne reide: ver frammleidum vora áratølu so sem eitt æfentír.

10. Vort líf varer um siøtíu ár, enn nær það kemur hátt, þá er það áttatíu ár, og þá það hefir vered kostulegt, þá hefir það mæda og erfide vered, því það lídur snart burt, so sem flygium ver þadan í frá.

11. Eunhver trúer því, það þú so ákaflega reidest? og hver uggar um sig fyrer þvilikre þinne grimmdar reide.

12. Kenn þú oss ad hugsa, það ver hliótum ad deya, so ad ver forsiáler verdum.

13. Snú þú þer þó Drottinn! til vor aptur, og vert þínum þiónum miskunsamur!

14. Árla uppfyll þú oss med miskun þinne, þá vilium ver prísa og glader vera um alla vora lífdaga.

15. Gied oss nú aptur, epter það þú hefir plágad oss so lenge, epter þá langa ólucku, sem ver høfum þolad.

16. Audsyn þínum þiónum þín verk, og þína vegsemd børnum þeirra.

17. Og Drottinn Gud vor se oss vingiarnlegur, og frammkvæme í hiá oss verked vorra handa, já! það verked vorra handa þá vile hann það frammkvæma.

## 91. Psalmur.

1. Hver hann situr under skiole hins hærsta, og er under skugga hins almáttuga,

2. Sá seger til Drottins: mitt traust og mitt slot, minn Gud á hvern eg vona!

3. Þvíad hann frelsar mig út af snøru veidemannsins, og út af skadsamlegre drepsótt.

4. Hann mun skýla þer med sínum fiødrum, og þitt trunadartraust mun vera under hans vængum, hans sannleikur er bæde skiølldur og veria.

5. So ad þú þurfer ei ad skelfast fyrer ognan næturennar, fyrir þeim skeytum sem á degenum fliúga.

6. Fyrer þeirre drepsóttenne, sem í myrkrunum lædest, fyrer þeirre sykenne sem um middeiged fordiarfar.

7. Þott ad þusund falle hiá þinne sídu, og tíu þusund til þinnar hægre hlidar, þá mun hún eigi hæfa þig.

8. Já! þú munt þína lyst siá med þínum augum, og líta á það, hvernenn ed þeim ógudlegu mun endurgolldid verda.

9. Þvíad Drottinn er þitt trunadar-traust, sá hinn hærste er þitt athvarf.

10. Þig mun ecke vondslegt henda, og engenn plága mun nálægia sig til þíns heimkynnis.

11. Þvíad hann hefir boded sínum einglum um þig, ad þeir skulu vardveita þig á øllum þínum vegum.

12. Ad þeir á hondum bere þig, og þú skallt ei steyta fót þinn vid steine.

13. Yfer leon og Eiturorma muntu ganga, og med fótum tróda þau ungu leonenn og drekana.

14. Hann gyrnest mig, því vil eg frelsa hann; hann þecker mitt nafn, þar fyrer vil eg vernda hann.

15. Hann kallar til mín, so vil eg bænheyra hann, eg em hiá hønum í neydenne, eg vil hønum hialpa og heidra hann.

Hann kallar til mín, so vil eg bænheyra hann, eg em hiá hønum í neydenne, og vil hønum hadan útryckia, og hann vegsamleg-ann gera.

16. Eg vil sedia hann med langgædum lífdøgum, og eg vil audsýna hønum mitt hialpræde.

## 92. Psalmur.

Psalmasaungur á sabbathsdeigenum.

1. 2. Þad er ágætur hlutur Drottne þacker ad gera, og loffsyngia þínu nafne þú hinn hæsti!

3. Ad morgne þína miskun, og ad kvøllde þinn sannleik ad kunngera.

4. Uppá tíu streinge og psalltara, med hørpuslætte.

5. Þvíad þú, Drottinn! lætur mig gladværann syngia út af þínum verkum, og eg hrósa verkum þinna handa.

6. Drottenn! hvernenn eru þín verk so stór? þíner þanckar eru so miøg diúper.

7. Einn dárlegur madur trúer því eigi, og sá heimske aktar þad eigi.

8. Hiner ógudhræddu grænka sem gras, og þeir illgerdamenn blomgast aller, þangad til þeir afmáder verda um alldur og æfe.

9. Enn þú, Drottinn! ert sá hinn hæsti, og blífur eylíflegana.

10. Þvíad siá þú! þíner óviner, Drottinn! siá þú, þíner óviner munu fyrerfaraft, og aller illvirkiar munu í sundurdreifder verda.

11. Enn mitt horn mun upphafed verda, so sem annars einhyrningt, og eg mun verda smurdur med ferſku vidsmiøre.

12. Og míni augu munu siá sína lyst á óvínum mínum, og mitt eyra mun heyra sína lysting á þeim illskufullu, sem setia sig upp á móte mer.

13. Hinn rettláte mun blomgast so sem palmavidur, hann mun vara so sem annad Cedrustre í Libanon.

14. Þeir sem innplantader eru í húse Drottins munu í forgarde Guds vors blomgast.

15. Og nær ed þeir taka einnenn alldrader ad verda, þá munu þeir þó samt sem ádur blomgast, og ávaxtarsamer og ferſker verda.

16. So ad þeir kunngere: ad Drottinn er so gódur, minn stirkur, og engenn ranginde eru med hønum.

## 93. Psalmur.

1. Drottinn er kongur, og dyrdlega pryddur, Drottinn er pryddur, og hefir eitt ríke uppbiriad, so vídt sem þad verolldenn er, og tilbúed ad þad skule blífa.

2. Sídan stendur þinn stóll stødugur, þú ert eylíflegur.

3. Drottinn, þeir vatnsstraumarner forhefia sig, þeir vatnsstraumarner forhefia sinn nid, vatnsstraumarner forhefia bylgiurnar.

4. Bylgurnar í hafenu eru miklar, og þióta upp ofurlega, enn Drottinn í upphædunum er þó enn meire.

5. Þín ord eru einn rettferdugur lærdomur, heilagleikenn er prydenn þíns húss, Drottinn! eylíflegana.

## 94. Psalmur.

1. Drottinn Gud! hvers ad hefndenn er, Gud! hvers ad hefndenn er, audsyn þig!

2. Upphef þig þú dómare veralldarennar! endurgialld þeim dramblátu hvad þeir verdskullda.

3. Drottinn! hversu lenge skulu hiner ógudhræddu, hversu lenge skulu hiner ógudhræddu stæra sig?

4. Og so tráſſuglega tala, og aller illgerdamenn hrósa ser so?

5. Drottinn! þeir nidurslá þitt fólk, og plága þína arfleifd.

6. Ekkiurnar og útlendingana í helslá þeir, og líſláta hina födurlausu.

7. Og segia: Drottinn ser þad eigi, og Gud Jacobs skeyter þar eigi um.

8. Hygged ad þer gicker medal folksins, og þer dárar! hvenær vilid þer skinsamer verda?

9. Sá sem eyrad hefir plantad skyllde hann eigi heyra? hann sem augad hefir skapad, skyllde sá eigi sia?

10. Hann sem agar hina heidnu, skyllde hann eigi refsa? sá ed monnunum kenner þad, hvad þeir vita.

11. Enn Drottinn veit hugsaner mannanna, ad þær eru hegomlegar.

12. Sæll er sá madur, sem þú agar Drottinn, og mentar hann fyrer þitt lögmál.

13. So ad hann hafe þolenmæde, nær ed á móte gengur, allt þar til ed þeim ógudlega verdur grøfenn búenn.

14. Þvíad Drottinn mun eigi útskúfa sínu fólke, ne helldur yfergefa sína arfleifd.

15. Þvíad rettindenn hlióta þó rettinde ad blífa, og þeim munu öll fróm hiörtu fylgia.

16. Hver veiter mer hiástod í gegn þeim illgiørnu? eda hver gengur til mín imóte illgerda mønnunum.

17. Ef ad Drottinn hann hefde eigi hiálpad mer, þá læge mín önd nærsta í þøgnenne.

18. Eg sagde: minn fótur hefir skeikad, enn þín miskun, Drottinn! vidhellt mer.

19. Marga hugarhrelling hafde eg í mínu hiarta, enn þínar hugganer þær glöddu mína sálu.

20. Alldrei þá muntu samþyckur verda þeim skadsamlega stól, hver ed lögmáled illa útleggur.

21. Þeir brynia sig út imóte sálu hins rettferduga, og fordæma saklaust blód.

22. Enn Drottinn er mín verndarhlíf; minn Gud er stirkur míns athvarfs.

23. Og hann mun endurgiallda þeim þeirra ranglæte, og mun afmá þá fyrer þeirra illsku saker, Drottinn Gud vor hann mun afmá þá.

## 95. Psalmur.

1. Komed hingad, látum oss lof syngia Drottne, og hátt lof syngia stirkleik vors hiálprædis.

2. Látum oss med þackargerd fyrer hans ásiónu koma, og med psalmum hönum lofsyngia.

3. Þvíad Drottinn hann er mikell Gud, og einn máttugur kongur yfer alla Gude.

4. Þvíad í hans hende er allt þad sem jørdenn fæver, og hæder fiallanna eru hans einnenn.

5. Þvíad hans er siórenn, og hann hefir gert hann, og hans hendur hafa þurlended tilbúed.

6. Komed, látum oss tilbidia og niderkriúpa, og fram falla fyrer þeim Drottne, sem oss hefir gjört.

7. Þvíad hann er vor Gud, og ver folk hans haglendis, og sauder hans handa.

8. Í dag, ef ad þer heyred hans rødd, þá forherded eigi ydar hiörtu, so sem ad skede til Meriba, líka sem til Massa á eydemørkenne.

9. Hvar ed fedur yðrer freistudu mín, þreifudu á og sáu mín verk.
10. So þad í fiørutíu ár hafde eg mædu fyrer þessu fólke, og sagde: Þeir eru þad folk, hverra hiørtu vilia ætíd fara villt, og þeir ed ei vilia læra mína vegu.
11. So þad eg sór í minne reide, ad eigi skylldu þeir koma til minnar hvíldar.

## 96. Psalmur.

1. Synged Drottne nyann lofsaung, synged Drottne øll verølldenn.
2. Synged Drottne, og lofed hans nafn; prediked dag frá deige hans hiálpræde.
3. Uppteled á medal heidenna þióda hans dyrd, medal alls folks hans dádsemder.
4. Þviad Drottinn er mikell og miøg loflegur, dádsamlegur framm yfer alla Gude.
5. Þviad aller Guder þióðanna eru afguder, enn Drottinn hann hefir himenenn gert.
6. Agætlega vel og prydelega þá stendur fyrer hønum, og þar gengur volldugléga og loflega til í hans helgedóme.
7. Þer þióder færed hingad Drottne, færed hingad Drottne dyrd og magt.
8. Færed hingad Drottne dyrdena hans nafns; færed giafer, og komed inn í hans forgard.
9. Tilbided Drottinn í heiløgum skrúda. Øll verølldenn óttest hann.
10. Seged á medal heidenna þióda: Þad Drottinn hann er konungurenn, og hafe sitt ríke tilreidt so vídt sem verølldenn er, ad þad skule blífa, og hann dæmer fólked rettvíslega.
11. Himenenn hann glede sig, og jørdenn se gladvær, siáfarhafed þad þióte upp, og hvad þar er inne.
12. Folldenn glede sig, og allt hvad þar er uppá, og láted øll tren í skógenum hrósa.
13. Fyrer Drottne, þviad hann kemur, til ad dæma jardríked. Hann mun jardarkringluna dæma med rettvíse, og fólked med sínum sannleika.

## 97. Psalmur.

1. Drottinn er konungurenn, þar af gledur sig jardríked, og eyarnar seu gladværar, so margar sem þær eru.
2. Skyenn og þokann eru íkringum hann, rettvísenn og dómurenn er grundvallan hans stóls.
3. Elldurenn útgengur fyrer hønum, og brenner allt umkring hans óvine.
4. Hans elldingar leiptra á jardarkringlunne, so þad jørdenn ser þad og skelfest vid.
5. Biørgenn brádna nidur sem annad vax fyrer Drottne, fyrer drottnaranum alls jardríkis.
6. Himnarner kunngera hans rettlæte, og allt folk þá ser hans dyrd.
7. Skammest þeir sín aller sem þióna líkneskium, og hrósa sér af skúrgodum, tilbided hann aller Guder.
8. Zion heyrer þad og gledst vid, og dæturnar Juda þær gledia sig, Drottinn yfer þinne ríkisstiornan.
9. Þviad þú Drottinn ert sá hinn hærste í øllum løndum, þú ert miøg upphafenn yfer alla Gude.
10. Þer sem elsked Drottinn, hated hid vonda. Drottinn hann vardveiter sáler sinna heilagra, út af hende ógudlegra þá mun hann frelsa þær.

11. Hinum rettláta blytur æ-
tíd liósed upp aptur ad renna, og
glede í hiortum þeirra frómu.

12. Þer rettláter! gleded ydur
í Drottne, og þacked hønum, og
príſed hans heilagleik.

## 98. Pſalmur.

Einn Pſalmur.

1. Synged Drottne nyann ſaung,
Þvíad hann gerer dádſemdarverk,
hann vinnur ſigur med ſinne hæg-
re hende, og med ſínum heilugum
armlegg.

2. Drottinn lætur ſitt hiálpræ-
de kunnugt verda, fyrer fólkenu
lætur hann ſitt rettlæte opinbera.

3. Hann minnteſt á ſína miſk-
un og ſannleika, vid húſed Iſra-
els. Øll endemørk jardarennar ſiá
hiálpræded Guds vors

4. Synged hátt lof Drottne øll
verølldenn, ſynged, vegſamed og
loſed.

5. Loſed Drottinn med hørpun-
ne, med hørpum og pſalmum.

6. Medur herludrum og baſun-
um, ſynged hátt lof Drottne þeim
konungenum.

7. Siáfarhafed þad þióte upp,
og hvad þar er inne, jardarkring
lann og þeir þar uppá búa.

8. Þau rennande vøtnenn hafe
lófatak med glede, og fiøllenn ſeu
gladvær.

9. Fyrer Drottne, þvíad hann
kemur ad dæma jardríked; hann
mun jardarkringluna dæma med
rettlæte, og fólked med rettindum.

## 99. Pſalmur.

1. Drottinn hann er konungurenn,
fyrer þad æder fólked, Hann ſitur
yfer Cherubim, þar fyrer hrærer ſig
verølldenn.

2. Drottinn er mikell til Zion,
og hár upp yfer øllu fólke.

3. Þacke menn þínu miklu og
dádſamlegu nafne, hvert ed hei-
lagt er.

4. I ríke þeſſa konungſins þá elſka
menn rettenn, þú gefur fremleika,
þu tilſetur dóm og rett í Jacob.

5. Upphefed Drottinn Gud vorn,
tilbided fyrer hans fótſkør, þvíad
hann er heilagur.

6. Moſes og Aaron medal hans
preſta, Samuel medal þeirra, ſem
hans nafn akalla. Þeir ákalla Drott-
inn, og hann bænheyrer þá.

7. Hann talade vid þá ígegn-
um einn ſkyſtolpa: þeir helldu hans
vitniſburde, og þau bodord ſem
hann gaf þeim.

8. Drottinn! þú ert vor Gud,
þú bænheyrer þá, þú Gud fyrer-
gafſt þeim, og ſtraffader þeirra
breytne.

9. Upphefed Drottinn vorn Gud,
og tilbided fyrer hans heiløgu fial-
le, þvíad Drottinn vor Gud, hann
er heilagur.

## 100. Pſalmur.

Einn þackletis Pſalmur.

1. Synged hátt lof Drottne øll
verølldenn.

2. Þióned Drottne med føgnu-
de. Komed fyrer hans áſiónu med
gladværd.

3. Medkenned þad Drottinn er
Gud. Hann hefir gert oſs, og eigi
ſiálfer ver, ſer til folks, og til ſau-
da ſíns haglendis.

4. Ganged inn um hans borg-
arhlid med þackargerd, ad hans
forgarde med lofgerd; þacked høn-
um, lofed hans nafn.

5. Þvíad Drottinn hann er liuf-
ur, og hans miſkunſeme varer ey-
líſliga, og hans ſannleikur um
alldur og æfe.

## 101. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Ut af nádenne og rettenum vil eg syngia, og þer Drottinn lof segia.

2. Forsiálega og skilvíslega breyte eg vid þá sem mer til koma, og geing trúlega framm í mínu húse.

3. Eg tek mer ecke vondt málef ne til, eg stugga vid þonum sem illa gerer, og læt hann eigi hiá mer vera.

4. Eitt fráleitt hiarta þad hlytur frá mer ad víkia; hinn illgiarna líd og eigi.

5. Hann sem heimuglega bakmæler sínum náunga, þann afmáe eg; hann sæ eg og eigi lided sem drambsamt vidmót og metnadarfullt ged hefir.

6. Mín augu líta epter þeim trúlyndu í landenu, so ad þeir búe hiá mer, og giarnann þá hefe eg fróma þenara.

7. Underhyggiusamt folk þá helld eg ei í mínu húse, hiner lygegiørnu þrífast eigi hiá mer.

8. Snemma þá afmáe eg alla ógudlega í landenu, so þad eg afmáe alla illgerdamenn út af borgenne Drottins.

## 102. Psalmur.

Bæn hins fáráda, nær ed hann er sorgfullur, og fyrer Drottne útheller sinne kløgun.

2. Drottinn! heyr þú mína bæn, og láttu mitt kall til þín koma.

3. Byrg eigi þitt andlit fyrer mer; í ánaudenne þá hneig þú þitt eyra til mín; nær ed eg kalla á þig þá bænheyr þú mig sem skiótast.

4. Þviad míner dagar eru í burtu lidner sem reykur, og mín bein þau eru brennd líka sem annar elldebrandur.

5. Mitt hiarta er sleiged og uppþornad líka sem annad gras, so þad eg forgleyme míns brauds ad neyta.

6. Mín bein þau loda vid mitt holld, út af gráte og andvarpan.

7. Eg em ordenn líka so sem reyrstockur á eydemørku, eins líka em eg vordenn so sem ønnur nátt-ugla í nidurbrotnum stødum.

8. Eg vake, og em so sem einmana fugl á húss þekium.

9. Daglega nída mig míner óviner, og þeir ed hæda ad mer, sveria um mig.

10. Þviad øskuna et eg líka sem braud, og med harmenum samblanda eg minn drick.

11. Fyrer þinne ognan og reide, þviad þú hefir upplypt mer, og mig í grunn nidursleiged.

12. Míner dagar eru í burtu lidner sem skugge, og eg em so sem annad hey uppvísnadur.

13. Enn þú Drottinn blífur æfinnlega, og þín minning um alldur og æfe.

14. Tak þig upp og vert miskunsamur yfer Zion, þviad tímenn er til, ad þú sert henne líknsamur, og sú stund er komenn.

15. Þviad þíner þiónustu-menn villdu fegner ad hún uppbygdest, og sæe giarnan þad hennar steinar og kalk tilbúed yrde.

16. So þad hiner heidnu óttudust nafned Drottins, og aller kongarner á jørdu þína dyrd.

17. Ad Drottinn hann uppbygde Zion, og birtest í sinne dyrd.

18. Hann snyr ser til bæna hinna fyrerlitnu, og forsmáer eigi þeirra bæn.

19. Þad verde ritad uppá epterkomendurnar, og þad folk, sem skapad skal verda, mun lofa Drottinn.

20. Þviad hann lítur út af sinne heilagre hæd, og Drottinn hann ser af himne ofan á jørdena.

21. So ad hann heyre andvarpan hins hertekna, og leyse børn daudans.

22. Uppá þad þeir predike nafn ed Drottins til Zion, og hans lof til Jerusalem.

23. Þá ed fólked kemur tilsamans, og kongaríkenn, Drottne ad þióna.

24. Hann nidurlægde á veigenum minn krapt; hann stytte mína daga.

25. Eg sege: minn Gud! tak mig eigi í burt ad hálfnudum mínum døgum, þín ár þau vara æ og alltíd.

26. Þú hefir ádur fyrre jørdena grundvallad, og himnarner eru þín handaverk.

27. Þeir munu forganga, enn þú blífur; aller munu þeir fyrnast, so sem annad fat: þeir munu skiptast so sem annad klæde, þá ed þú umskipter þeim.

28. Enn þú blífur sem þú ert, og þín ár taka engann enda.

29. Børn þinna þiónustu manna munu blífa, og þeirra sæde mun tingast fyrer þer.

## 103. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Lofa þú sála mín Drottenn, og allt hvad í mer er, hans heilaga nafn.

2. Lofa þú Drottinn! sála mín, og forgleym ei þvi gódu, sem hann hefir gert mer.

3. Hann, hver ed fyrergefur þer allar þínar synder, og græderallar þínar meinsemder.

4. Hver ed frelsar þitt líf út af fordiørfunenne, hver ed koronar þig med náð og miskunseme.

5. Hver ed þinn munn gladværann gerer, og þú verdur ungur aptur, líka sem ønnur ørn.

6. Drottinn hann útvegar þeim rettlæte og dóm, øllum sem rangindenn lída.

7. Hann let Moysen vita sína vegu, og Israels børn sín verk.

8. Líknarfullur og miskunsamur er Drottinn, þólinnmodur og harla góðgiarn.

9. Hann mun ei æfenlega þrátta, og eigi eylíflega reidenne hallda.

10. Hann breyter ei vidur oss epter vorum syndum, og endurgelldur oss eigi epter vorum misgerningum.

11. Þviad so hátt sem þad himenenn er upp yfer jørdenne, þá lætur hann sína náð vollduglega vera yfer þeim sem hann óttast.

12. So fiærre sem þad austred er frá vestrenu, lætur hann vorar yfertrodslur frá oss vera.

13. Líka sem þad faderenn er børnunum líknsamur, eins þá er Drottinn miskunsamur vid þá sem hann óttast.

14. Þviad hann þecker vora skøpun; høuum til hugar kemur þad ver erum dupt.

15. Madurenn er um sína lífdaga sem annad gras, líka sem blómstred á vellenum blomgast hann.

16. Nær ed vindurenn geingur þar yfer, þá er hann ei meir, og hans stadur þecker hann eigi meir.

17. Enn miskun Drottins varer frá eylífd til eylífdar, yfer þeim sem hann óttast, og hans rettlæte yfer barna børnunum.

18. J hiá þeim sem hallda hans sáttmála, og minnast á hans bodord, so ad þeir gere þar epter.

19. Drottenn hann hefir sinn

stól á himnum tilbúed, og hans ríke þad drottnar yfer øllum hlutum.

20. Loffeged Drottne þer hans einglar, þer øflugar kempur sem hans erende útretted, so ad heyrest raustenn hans orda.

21. Lofed Drottinn allar hans hersveiter, hans þenarar, þer sem hans vilia gered.

22. Loffeged Drottne øll hans verk í øllum stødum hans herradæmis: loffeg þú ønd mín Drottne!

## 104. Psalmur.

1. Loffeg þú Drottne sála mín, Drottinn minn Gud! nærsta vegsamlegur ertu, fagurligana og byrdarliga ert þú pryddur.

2. Þinn klædnadur er lióssid sem þú ert í: þú útbreider himenenn sem annad vefnadar tialld.

3. Þú hvelfer hann ofann med vøtnonum: þú fer á skyunum sem á ødrum vagne, og gengur á fiødrum vindsins.

4. Þú sem gerer þína eingla ad vinde, og þína þenara ad ellds loga.

5. Þú sem grundvallar jardríked á sinne stadfestu, so ad þad blífur um alldur og æfe.

6. Medur diúpenu hylur þú þad, svo sem med ødru klæde, og vøtnenn standa upp yfer fiøllunum.

7. Enn fyrer þinne ströffun þá flya þau: fyrer þínum reidarþrumum fara þau burt þadan.

8. Fiøllenn þau gnæfa hátt upp, og fleterner setia sig midur under, í þeim stad sem þú grundvallader þeim.

9. Takmark hefir þú sett, þar komast þau ei út yfer, og þau meiga eigi jørdena aptur hylia.

10 Þú lætur brunnana uppspretta í dølunum, so þad vøtnenn framm flióta mille fiallanna.

11. So þad øll dyr á mørkenne drecke, og þad villudyrenn slecke sinn þorsta.

12. Hiá þeim hinum sømum sitia fuglar himensins, og syngia á mille vidarkvistanna.

13. Þú vøkvar fiøllenn her ofan ad; þú fyller landed af ávextenum þeim þú gefir.

14. Þú lætur grased uppspretta fyrer fenadenn, og sæded mønnum til nytsemda, so þad þú útleider brauded af jørdunne.

15. Og ad víned glede mannsins hiarta, og ad hans ásiá dælig verde út af vidsmiørenu, og ad brauded stirke mannsins hiarta.

16. So ad skógartren Drottins standa full med vøkvan, þau cedrustren í Libanon sem hann hefir plantad.

17. Þar hreidra sig fuglarner, og storkarner byggia uppe í grenevidartriánum.

18. Þau háfu biørgenn eru steingeita athvarf, og biargskorurnar kunisdyranna.

19. Þú gerer tungled, árenu þar epter ad skipta: sólenn hún veit sína nidurgaungu.

20. Þú gerer myrkt, so ad nóttenn verdur, þá hreifa ser øll villudyr.

21. Þau enu ungu Leonenn sem grenia epter brádenne, og leita sinnar fædslu af Gude.

22. Enn nær sólenn gengur upp, hafa þau sig burt þadan, og leggia sig í sitt bæle.

23. Þá geingur madurenn út til sinnar vinnu, og til síns ákursverks, allt framm ad kvølldе.

24. Drottinn! hvernenn eru þín verk so stór og mørg; øll hefir þú þau med speke tilsett, og jørdenn er full af þinne godgyrne.

25. Siáfar hafed þad sem er so

vídt og miked, þar sveima inne ó-telianlegar bæde smáar kindur og stórar.

26. Þar ganga skipenn; þar eru þeir hvaler, hvera ed þú hefir gert, so ad þeir leika ser þar inne.

27. Þad vonar allt uppá þig, so ad þú gefe þvi fædslu á sínum tíma.

28. Nær ed þú gefur þeim, þá samansafna þeir; nær er þú upplykur þinne hende, þá verda þeir med gódu sadder.

29. Hylur þú þitt andlit, þá skelfast þeir. Þú í burttekur þeirra andardrátt, þá fyrer farast þeir, og verda þeir aptur ad dupte,

30. Þú útlætur þinn anda, þá skapast þeir, og þú endurnyar mind jardarennar.

31. Dyrdenn Drottins er eylífleg. Drottinn hefir þocknan á sínum verkum.

32. Hann álítur jørdena, þá skelfur hun; hann áhrærer fiølleun þá rykur af þeim.

33. Eg vil loffyngia Drottne mína lífdaga, og minn Gud lofa, so lenge sem eg em.

34. Mín ræda verde hønum þægeleg, eg gledst í Drottne.

35. Hiner syndugu hlióta einn enda ad taka á jørdunne, og hiner ógudhræddu ei lengur ad vera. Lofa þú Drottinn sála min, haleluja!

## 105. Psalmur.

1. Þacked þer Drottne, og predíked hans nafn; kunngered hans verk, á medal folksins.

2. Synged af hønum; lofid hann; taled um allar hans dádsemder.

3. Hrósed hans heilága nafne: hiartad þeirra sem Drottins leita þad glede sig.

4. Spyred epter Drottne og epter hans magt; leited hans andlitis á alla vegu.

5. Minnest hans dádsemdarverka, þau ed hann hefir gert, hans furduverka og hans ords.

6. Þer sæde Abrahams hans þiónustumanns, þer børn Jacobs, hans enu útvøldu.

7. Hann er Drottinn vor Gud, hann dæmer í allre verølldu.

8. Hann minnest síns sáttmála eylífliga, þess ordsins sem hann hefir fyrerheited, mørgum þusundum æ og alltíd.

9. Sem hann hefir gert vid Abraham, þess eids vid Isaac.

10. Og hann sette Jacob þad sama til eins rettar, og Israel til eylífs sáttmála.

11. Og sagde: þer vil eg gefa landed Canaan, hlutfall ydrar arfleifdar.

12. Þá ed þeir voru fáer og audvirdeliger, og útlender þar inne.

13. Og þeir fóru frá einnre þiód til annarar, og ødru ríkenu til eins annars folks.

14. Engann mann let hann þeim skada gera, og kongana þá straffade hann þeirra vegna.

15. Snerted eigi mína þá hina smurdu, og gered mínum prophetum ecke mein.

16. Og hann let hallære koma yfer landed, og í burt svipte øllum tilføngum braudsins.

17. Hann sende einn mann undan þeim, Joseph var til þræls selldur.

18. Þeir þvingudu hans fætur í stocke; hans líkame hlaut í járne ad liggia,

19. Allt þangad til ad hans ord þad kom, og ræda Drottins gagnhreinsade hann.

20. Þá sende kongurenn út og

let láta hann lausann, høfdingenn folksins skipade hann út ad láta.

21. Hann sette hann Herra yfer sitt hus, til stiornara yfer allar sínar eigner.

22. So þad hann mentade hans høfdingia epter hans vísu, og vísdom kennde hans ølldungum.

23. Og Jsrael fór í Egyptaland, og Jacob vard einn framande í landenu Ham.

24. Og hann let sitt folk aukast miøg, og gerde þá megtugre enn þeirra óvine.

25. Hann umsnere þeirra hiørtum, so ad þeir urdu hans fólke reider, og þeinktu sier med slægd hans þenara nidur ad kefia.

26. Hann sende sinn þión Mosen; Aaron þann ed hann hafde útvaled.

27. Þeir hiner somu gerdu hans teikn á medal þeirra, og hans stórmerke í landenu Ham.

28. Hann let myrkurenn koma, og gerde dymmt, og þeir vøru eigi óhlydnger hans ordum.

29. Hann snere vøtnum þeirra í blód, og drap þeirra fiska.

30. Þeirra land vall af pøddum, inn í þau hinu innstu herberge þeirra konga.

31. Hann sagde: þá komu illskuormar, lys í allra þeirra landsálfur.

32. Hann gaf þeim hagl til regns, ellds loga í þeirra land.

33. Og sló þeirra vínvid og fiknatre, og i sundurbraut tren í þeirra takmørkum.

34. Hann sagde: þá komu engesprettur, og gras madkar ótal.

35. Og þeir átu upp allt gras í þeirra lande, og þeir átu upp allann ávøxt á þeirra akurløndum.

36. Og hann sló allann frumgetnad á Egyptalande, alla þeirra fyrstu erfingia.

37. Og hann útleidde þá med silfre og gulle, og í bland þeirra slecktis var engenn vanfær.

38. Egyptaland gladdest vid, ad þeir útforu, þviad hrædsla þeirra var yfer þá fallenn.

39. Hann breidde út eitt sky til ad skyla þeim, og elldenn á nóttunne til ad lysa.

40. Þeir beiddu: þá let hann vacktelur koma, og hann sadde þá med himna braude.

41. Hann opnade hellubiarged, þá rann vatn út þadann, so ad þar runnu læker í þurrlendre eydemørku.

42. Þviad hann minntest á sitt heilaga ord, sem hann hafde talad til Abrahams síns þiónustumanns.

43. Þannenn útleidde han sitt folk med fagnade, og sína útvalda med glede.

44. Og gaf þeim løndenn heidingianna, so þad þeir eignest audæfe þióðanna.

45. Uppá þad, ad þeir skylldu hallda hans rett, og vardveita hans løgmál, haleluja!

## 106. Psalmur.

### Haleluja.

1. Þacked þer Drottne, þviad hann er gódur, og hans miskunseme varer eylíflega.

2. Hver kann þau miklu verk Drottins út ad seigia? og øll hans vegsamlegu verk ad lofa?

3. Sæler eru þeir sem hallda hans bodord, og gera alla tíma hvad rettvíslegt er.

4. Minnstu mín Drottinn! epter þeirre miskun ed þu hefir heited þínu fólke, audsyn oss þína hiálp.

5. So ad ver meigum siá velferd þinna útvaldra, og gledia oss

yfer þvi, þad þinu fólke vel vegnar, og ad hrósa oss medur þinne arfleifd.

6. Ver høfum syndgast med vorum forfedrum, ver høfum misgert og høfum ógudhræddir vered.

7. Fedur vorer á Egyptalande villdu eigi skilia þínar dádsemder, þeir hugleiddu eigi þína miklu miskunseme, og voru óhlyduger vid siáfarhafed, sem var vid hafed rauda.

8. Enn hann hiálpade þeim fyrer síns nafns saker, so ad hann audsynde sína magt.

9. Og hann hastade á hafed rauda, þá vard þad þurt, og hann leidde þá ígegnum diúped, líka sem um adra eydemørk.

10. Og hiálpade þeim út af hende þess sem þá hatade, og leyste þá út af hende óvinarins.

11. Og vatned þad drekte þeirra mótstødu mønnum, svo þad ei einn vard epter.

12. Þá trudu þeir á hans ord, og sungu hans lof.

13. Enn þeir forgleymdu snarlega hans verkum, þeir bidu eigi epter hans rádum.

14. Og þeir fengu gyrndar sysn á eydemørkenne, og freistudu Guds á þeim øræfis óbyggdum.

15. Og hann veitte þeim þeirra bøn, og sende þeim nóg, þar til þá velgde þar vid.

16. Og í herbúdunum settu þeir sig uppá móte Mosen, imót Aaron þeim heilaga Drottins.

17. Jørdenn opnade sig og gleypte Dathan, og hulde hóp Abirams.

18. Og elldurenn tendradest upp í þeirra hóp, logenn hann uppbrennde hina ógudlegu.

19. Þeir gerdu ser kálf í Horeb, og tilbádu þad steypta bilæte.

20. Og þeir umsneru þeirra dyrd, í líking nauts þess ed grased etur.

21. Þeir forgleymdu Gude sínum hiálpar manne, hver ed soddan stórmerke hafde gert á Egyptalande.

22. Dádsemdarverkenn í landenu Ham, og þau hræðilegu verk í hafenu rauda.

23. Og hann sagde: Þad hann villde afmá þá, ef ad Moses hans hinn útvalde hefde eigi aptrad þeirre eydeleggingu, til ad frásnúa hans reide, so ad hann glatade þeim eigi med øllu.

24. Og þeir forsmádu þad hid ágæta landed, og þeir trúdu eigi hans ordum.

25. Og þeir møgludu í sínum landtiølldum, þeir hlyddu eigi raust Drottins.

26. Og hann hóf sína hønd upp imóte þeim, so þad hann nidurslæe þá í eydemørkenne.

27. Og hann í burt fleygde þeirra sæde medal heidenna þióda, og í sundurdreifde þeim út í løndenn.

28. Og þeir gáfu sig til Baal Peor, og átu af fórnfæringum daudra skúrgoda.

29. Og þeir reittu hann med sínum verkum, þá braust og plágann framm á medal þeirra.

30. Þá geck framm ad Phineas og mykte søkena, þá tók plágann ad stillast.

31. Og þad sama vard hønum reiknad til rettlætes, framar og framar, æfenlega.

32. Og þeir styggdu hann vid mótmælis vatned, og plágudu Mosen illa.

33. Þviad þeir angrudu hans hiarta, so ad hønum hrutu nockur ord.

34. Eigi helldur afmádu þeir þær

þiódernar, so sem ad Drottinn haf-
de þó skipad þeim.

35. Helldur samblønduðu þeir
sig medal þeirra heidnu, og lærdu
verkenn þeirra hinna sømu.

36. Og þiónudu þeirra skúrgod-
um; þau enu sømu urdu þeim til
hneixlunar.

37. Og þeir offrudu sonu sína,
og dætur sínar dióslunum.

38. Og þeir úthelltu saklausu
blóde, blóde sona sinna og dætra
sinna, sem þeir offrudu skúrgodum
Canaans, so ad landed vard med
blódskulldum fleckad.

39 Og þeir saurgudu sig med
sínum verkum, og drygdu hóraner
med sínum verkum.

40. Þá grambest reide Drott-
ins yfer hans fólke, og stuggade
vid sínne arfleifd.

41. Og gaf þá í hendur heid-
ingianna, so ad þeir sem þá hötudu,
drottnudu yfer þeim.

42. Og þeirra óviner þreyngdu
ad þeim, og þeir urdu lítilætter
under þeirra høndum.

43. Hann frelsade þá optsinn-
is, enn þeir reittu hann med sínum
ásetningum, og urdu þvi fáer fyrer
sinna misgerda saker.

44. Og hann áleit þeirra naud,
þá ed hann heyrde þeirra kveinan,

45. Og hann minntest á sinn
sáttmála vid þá gerdann, og
hann idradest þess epter mikelleik
sinnar miskunsemdar.

46. Og let þá koma til miskun-
ar, fyrer øllum þeim, sem þá høfdu
fangad.

47. Hiálpa þú oss, Drottinn Gud
vor! og samansafna oss í burt frá
heidnum þiódum, so ad ver þøckum
þínu heiløgu nafne, og prísum þitt
lof.

48. Lofadur se Drottinn Gud Is-
raels, frá eylífd til eylífdar, og
allt fólked sege: ámen, halleluja!

## 107. Psalmur.

1. Þacked þer Drottne, þvi hann
er gódur, og hans miskunseme var-
er ad eylífu.

2. Seged þer sem frelsader erud
af Drottne, hvera hann hefir end-
urleyst út af neydenne.

3. Og þeir sem hann hefir sam-
ansafnad burt úr løndunum, frá
austre, frá vestre, frá nordrenu, og
frá siáfar-hafenu.

4. Þeir sem villter føru í eyde-
mørkenne, á þeim ræfisveigenum,
og fundu engann stad, þar þeir gá-
tu bued.

5. Hungrader og þyrster, og sál
þeirra vanmegnadest.

6. Og þeir kølludu til Drottins
í sínne naud, og hann frelsade þá út
af þeirra angist.

7. Og leidde þá rettann veg, so
ad þeir gengu til þess stadarins, þar
ed þeir gætu í búed.

8. Þeir hiner sømu skulu Drott-
ne þacker gera fyrer hans dádsemd-
er, þær ed hann veiter mannanna
børnum.

9. Þad hann sedur þurftuga sá-
lu, og uppfyller hungrada sálu med
gódu.

10. Þeir ed hliota ad sitia í myrk-
re og dymmu, fángader í þvingan
og járnum.

11. Þar fyrer, ad þeir voru ó-
hlyduger Guds bodordum, og høf-
du vanvirdt løgmál hins hæsta.

12. Þar fyrer hlaut þeirra hiar-
ta med ógæfu plágad ad verda, so
ad þeir láu þar, og engenn hiálpa-
de þeim.

13. Og þeir kølludu til Drott-
ins í þeirra naud, og hann hiálpade
þeim út af þeirra angist.

14. Og leidde þá út af þeim myrkrunum, skuggannm, og sundursleit þeirra fiøtur.

15. Þeir skulu Drotte þacker gera fyrer hans dádsemder, þær ed hann veiter mannanna børnum.

16. Ad hann sundurbrytur eyrhlidenn, og ísundurslær járngrindurnar.

17. Þeir heimsku menn, sem plágader voru vegna sinnar yfertrodningar, og fyrer sinna synda saker.

18. So ad þa velgde vid øllum mat, og urdu daudsiúker.

19. Og þeir kølludu til Drottins í þeirra naud, og hann hiálpade þeim út af þeirra angist.

20. Hann sende sitt ord, og gerde þá heilbrigda, og frelsade þá, so ad þeir letust eigi.

21. Þeir skulu Drottne þacker gera fyrer hans miskunseme, og fyrer hans dádsemder, þær ed hann veiter mannanna børnum.

22. Og þacklæte offra, og framm telia hans verk med føgnude.

23. Þeir ed med skipunum fara á siónum, og fremia sína høndlun á þeim stóru vøtnum.

24. Þeir ed verkenn Drottins hafa forsókt, og hans dádsemder í siónum,

25. Nær hann talade, hreisde ser stormvindurenn, sá ed ølldurnar upphóf.

26. Þeir fóru upp til himensins, og fóru allt í diúpenn nidur, so ad þeirra ønd ørvænte fyrer angist.

27. So ad þeir tumbudu og reikudu sem annar druckenn madur, og engenn ráð vissu þeir lengur.

28. Og þeir kølludu til Drottins í þeirra naud, og hann hiálpade þeim úr þeirra angist.

29. Og hann stillte þann stóra storm, so ad bylgiurnar læckudu sig.

30. Og þeir urdu glader vid, þad løgn var orded, og hann leidde þá til lands epter þeirra osk.

31. Þeir hiner sømu skulu Drottne þacker gera, fyrer hans miskunseme, og fyrer hans dádsemder, þær ed hann veiter mannanna børnum.

32. Og heidra hann í samkundunne, og lofa hann í hiá øldungunum.

33. Þeir, hverra rennande læker uppþornader, og þeirra uppsprettu-brunnar útsiader voru.

34. So þad hid friossáma landed vard ávaxtarlaust, fyrer saker illsku þeirra, sem þar inne biuggu.

35. Og hann let í þad þurra land koma gnoglegt vatn, og á þurrlendded uppsprettu brunna.

36. Og sette þar nidur hina hungrudu, so ad þeir tilbygge ser stad, þar ed þeir kynnu í ad búa.

37. Og sá þar akra, og ad planta víngarda, og fá árlegann ávøxt.

38. Og hann blessade þá, so ad þeir fiølgudu nærsta, og gaf þeim margt kvikfe.

39. Þeir, hverer nidur þrickter og þvingader voru, af þeim illskumønnum sem þá þvingudu og í þiáning høfdu.

40. Þá ed fyrerlitningunne var úthellt yfer høfdingiana, so þad allt for villt og var í eyde.

41. Og hann verndade hinn volada út af vesølldenne, og fiølgade hans ætt, líka sem adra hiørd.

42. Sodan skulu hiner frómu siá og glediast af, og á allre illgyrne skal munnurenn tilbyrgdur verda.

43. Hver er skinsamur, og bífelldur þessu? þá munu þeir formerkia, hversu margar velgerder þad Drottinn audsyner.

## 108. Psalmur.

Psalmasaungur Davids.

2. Gud! þad er mín retteleg alvara, eg vil syngia og dickta, mín vegsemd og einnenn.

3. Rís upp þú psalltare og harpa, snemma þá vil eg uppe vera.

4. Þer vil eg, Drottinn! þacker gera medal folksins; medal þióðanna vil eg þer lofsyngia.

5. Þvi þín miskunseme tekur so vídt sem himinenn er, og þinn sannleikur so vídt sem skyenn útganga.

6. Upphef þig, Gud! yfer himnana, og þína dyrd yfer øll lønd.

7. Uppá þad, ad þíner ástfamleger viner frelsader verde: hiálpa þú med þinne hægre hende, og bænheyr mig.

8. Gud hann talar í sínum helgedóme: þess sama glediunst eg, og vil Sichem sundur skipta, og dalenn Suchoth afmæla.

9. Gilead er minn: Manasse er einnenn minn; og Ephraim er magt míns høfuds: Juda er minn høfdinge.

10. Moab er mitt þvottunarker. Minn skó vil eg útretta yfer Edom; yfer Philisteis vil eg glediast.

11. Hver vill flytia mig í einn øruggann stad? hver mun leida mig í Edom?

12. Muntu Gud eigi gera þad, þú sem í burt skúfar oss? og þú, Gud! fer eigi út med vorum her.

13. Veittu oss fullting í neydenne, þviad mannleg er engu nyt.

14. Medur Gude vilum ver hreystt-verkenn gera, hann mun vora óvine undertroda.

## 109. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

1. Gud! mín hrósun, þeige þú eigi!

2. Þviad þeir hafa sínum ógudlegum og følskum munne ígegn mer upp loked, og tala á móte mer med følskum tungum.

3. Og þeir tala eiturlegana á móte mer alla vegana, og strída ígegn mer fyrer utan orsøk.

4. Af þvi eg elska, á, eru þeir á móte mer, enn eg bidst fyrer.

5. Þeir audsyna mer illt fyrer godt, og hatur fyrer elsku.

6. Set þú ógudhræddann yfer hann, og þad Satan skule standa hønum til hægre handar.

7. Þá hann dæmest, þá reynest hann ógudlegur, og verde hans bæn ad synd.

8. Dagar hans hliote fáer ad verda, og hans embætte take einn annar.

9. Hans børn verde fødurlaus, og hans húsfrú ein ekkia.

10. Hans børn ráfe viller vegar, og þigge ølmosu, og fare þurfande líka sem þeir ed fordiarfader eru.

11. Okurkarlenn útsiúge allt, hvad hann hefir, og hiner annarlegu ræne hans audæfum.

12. Og engenn se sá, sem gere hønum til goda, og eigi se sá neinn ed miskune hans fødurleysingium.

13. Hans nidiar þá verde þeir upprætter, þeirra nafn verde afskafed í ødrum lid.

14. Misgerder hans forfedra þá verde þær í minne lagdar fyrer Drottne, og syndenn hans módur afmáest eigi.

15. Drottinn láte þær alldrei lída frá sínum augum, og þeirra minning hlióte upprætt ad verda af jørdunne.

16. Þar fyrer, ad hann hafde so alldeilis enga miskun, helldur ofsokn veitte þeim fátæka og volada,

og hinum harmþrungna, ad hann deydde hann.

17. Og hann villde bølvanena hafa; hún mun og yfer hann koma: blessunena villde hann eigi, so mun hún einnenn hønum fiarlæg verda.

18. Og hann íklæddest bølvanenne so sem nærklæde, og hún er inn runnenn í hans idur sem vatn, og inn í hans bein líka sem annad vidsmiør.

19. Verde hún hønum líka sem annad fat í hveru hann er, og so sem þad bellte med hveru hann gyrdest alla tíma.

20. So verde þeim af Drottne sem mer mótsnúner eru, og tala vondslega ígegn minne sálu.

21. Enn þú Drottinn, Drottinn! vertu med mer, fyrer þins nafns saker, þviad þín miskunseme er mín huggun, frelsa þú mig.

22. Þviad eg em fátækur og fáráður, mit hiarta er sundursleiged í mer.

23. Eg líd í burt hedan sem skugge, sá ed í burt rekenn verdur, og eg verd burt rekenn so sem adrar eingesprettur.

24. Mín kne eru veik af føstu, og mitt holld er magurt, og hefir engann feitleika.

25. Og eg hlyt þeirra athlæe ad vera, nær ed þeir siá mig þá skaka þeir høfud sín.

26. Veit mer hiálstod, Drottinn, Gud minn, hiálpa mer epter miskunsemd þinne.

27. So ad þeir formerke, ad þetta se þín hønd, ad þú Drottinn gerder soddann.

28. Bølve þeir, þá blessa þú; sete þeir sig upp á móte mer, þá hlióte þeir til skammar ad verda, enn þinn þiónn hann glede sig.

29. Míner mótstødu-menn verde med smán klædder, og sinne skømm íklædest þeir, so sem ødrum kyrtle.

30. Mikelega vil eg Drottne þacka med mínum munne, og prísa hann medal margra.

31. Þviad hinum fátæka stendur hann til hægre handar, só ad hann frelse hann í frá þeim sem hans líf fyrerdæma.

## 110. Psalmur.

Einn Psalmur Davids.

1. Drottinn sagde mínum Drottne, set þú þig til minnar hægre handar, þangad til eg legg þína óvine til skarar fóta þinna.

2. Drottinn mun útsenda sprotu þíns ríkes af Zion; drottna þú á medal þinna óvina!

3. Epter þínna sigurvinning mun þitt folk viliuglegana offra þer, í heiløgum skrúda, þer munu þín børn fædast so sem døggfall út af morgunrodanum.

4. Drottinn hann hefir svared, og þess idrast hann eigi: Þú ert einn kennemadur eylíflega, epter vísu Melchisedeks.

5. Drottinn til þinnar hægre handar hann mun sundurslá kongungana á tíma sinnar reide.

6. Hann mun dæma medal heidenna þióda; hann mun stórt slag gera; hann mun sundurslá høfudenn yfer stórum løndum.

7. Ut af læknum á veigenum mun hann drecka, þar fyrer mun hann høfuded upphefia.

## 111. Psalmur.

Halleluja.

1. Eg þacka Drottne af øllu hiarta, í ráde þeirra gódu, og í søfnudenum.

2. Mikel eru verkenn Drottins; hver hann athugar þau, sá hefir sí-fellda lysting þar af.

3. Hvad hann skickar, það er lof-legt og dyrdlegt, og hans rettlæte blífur eylífligana.

4. Eina minning hefir hann gert sinna stórmerkia, sá hinn líknsame og miskunsame Drottinn.

5. Þeim gefur hann fædslu sem hann óttast, eylífligana þá minnest hann síns sáttmála.

6. Sín volldug verk lætur hann kunngera sínu fólke, það hann ge-fe því arfleifdena heidenna þióda.

7. Verkenn hans handa eru sannleikur og rettinde; oll hans bodord eru rettelig.

8. Þau munu halldast um alld-ur og ad eylífu, og ske trúliga og rettvísliga.

9. Hann sender eina endurlausn sínu fólke; hann lofar, það sinn sátt-mále skule blífa eylífligana. Hei-lagt og hræbeligt er hans nafn.

10. Otte Drottins er upphaf vís-domsins, það er ein ógæt vitska: hver hann gerer þar epter, þess lof-styr blífur eylífliega.

## 112. Psalmur.

Halleluja.

1. Sæll er sá sem óttast Drott-inn, hver ed hefir mikla lyst til hans bodorda.

2. Hans sæde mun verda volld-ugt á jordu: ætt þeirra gódu mun blessud verda.

3. Ríkdómur og nægter munu vera í þeirra húse, og þeirra rett-víse blífur eylífligana.

4. Rettferdugum, þeim upp renn-ur liosed í myrkrunum, af þeim hinum nádarsamlega, miskunsa-ma og rettláta.

5. Sæll er sá madur sem hann er miskunsamur, og lánar giarn-ann, og útretter sín erende, so það hann gere aungum rangindé.

6. Þvíad hann mun æfenliga blífa. Þeim rettláta mun alldrei gleymt verda.

7. Nær ed einhver plága kemur, þá hrædest hann ei; hans hiarta vonar eflaust uppá Drottinn.

8. Hans hiarta er oruggt og hrædest eigi, þangad til ad hann ser sína lyst á sínum óvinum.

9. Hann útdreifer og gefur fá-tækum; hans rettlæte blífur æfen-liga; hans horn mun upphafed verda med vegsemd.

10. Hinn ógudhrædde mun siá það, og fyrer í þykia; sínum tonn-um mun hann saman bíta, og for-ganga, því hvad þeir hinu ógudli-gu giarnann villdu, það er tapad.

## 113. Psalmur.

Halleluja.

1. Lofed þer Drottins þiónustu-menn, lofed nafned Drottins.

2. Lofad se nafned Drottins, hedann í frá og ad eylífu.

3. J frá uppgongu solarennar allt til hennar nidurgongu, se lofad nafned Drottins.

4. Drottinn er hár yfer ollum heidingium, hans dyrd geingur so vídt sem það himenenn er.

5. Hver er slíkur sem Drottinn vor Gud? sá ed hefir sig so hátt sett.

6. Og lítur á það hid andvirde-liga, á himnum og jordu.

7. Hver ed lítelmagnann upp-reiser úr duptenu, og hefur hinn fátæka út af saurindunum.

8. So ad hann sette hann hiá hofdingium, í hiá hofdingium síns lyds.

9. Sá sem hina óbyriu lætur búa

í húsenú, so þad hún verdur ein gladvær barna móder, halleluja.

## 114. Psalmur.

1. Pá Israel útfór af Egypta-lande, húsed Jacobs í burt frá þvi framande fólke,
2. Pá vard Juda hans helge-dómur, Israel hans vellde.
3. Siáfar-hafed sá þad og flyde, Jordan-hún snere ser á bak aptur.
4. Fiøllenn stucku upp sem sauder, og hálsarner so sem unger sauder.
5. Hvad var þer þú siáfar-haf! ad þú í burt flýder? og þer Jordan! þad þú snerest til baka aptur?
6. Þer fiøll! ad þer stuckud upp sem sauder? og þer hálsarner! so sem unger sauder.
7. Fyrer Drottne þá bifadest jørdenn, fyrer Gude Jacobs.
8. Hver ed hellubiargenu umsnír til vatnssióar, og steinunum til vatnsbrunna.

## 115. Psalmur.

1. Eige oss, Drottenn! eigi oss, helldur þínu nafne gef þú dyrdena, vegna þinnar miskunar og sannleiks!
2. Hvar fyrer þá skulu hiner heidnu segia: hvar er nú þeirra Gud?
3. Enn vor Gud er á himne, hann kann ad gera hvad hann vill.
4. Enn hinna annara skúrgód eru silfur og gull, af mannanna høndum gerd.
5. Þau hafa munna og tala eigi, þau hafa augu og siá eigi.
6. Þau hafa eyru og heyra eigi, þau hafa naser og ylma eigi.
7. Þau hafa hendur og þreifa eigi, fætur hafa þau, og ganga þó eigi, og tala eigi ígegnum sinn háls.
8. Þeir ed soddann gera eru eins líka, og aller þeir ed treysta á þau.
9. Enn Israel vone upp á Drottinn, hann er þeirra hiálp og skiølldur.
10. Húsed Aarons vone uppá Drottinn, hann er þeirra hiálp og skiølldur.
11. Hverer ed óttast Drottinn, þeir vona einnenn á Drottinn, hann er þeirra hiálp og skiølldur.
12. Drottinn hann minnest vor, og blessar oss, hann blessar húsed Israels, hann blessar húsed Aarons.
13. Hann blessar þá sem óttast Drottinn, bæde smáa og stóra.
14. Drottinn hann blesse ydur æ meir og meir, ydur og ydar børn.
15. Þer erud þeir blessudu af Drottne, þeim sem gert hefir himen og jørd.
16. Himenenn gervallur er Drottins, enn jørdena hefir hann mannanna børnum gefed.
17. Hiner daudu munu eigi lofa þig, Drottinn! eigi helldur þeir sem ofan fara í þøgnena.
18. Helldur ver lofum Drottinn, allt hedan í frá, og ad eylífu, halleluja.

## 116. Psalmur.

1. Þad sama er mer liuft, þad Drottinn heyrer mína raust, og mína grátbeidne.
2. Þad hann hneiger sitt eyra til mín, þar fyrer vil eg og um mína lífdaga hann ákalla.
3. Fiøtraner daudans umkríngdu mig, helvítis angist hafde snorted mig, eg kom í eymd og anaud.
4. Enn eg kallade á nafned Drottins. O Drottenn! frelsa þú sálu mína!

5. Drottinn er nádugur og rettferdugur, og vor Gud hann er miskunsamur.

6. Drottinn hann vgrdveiter þá einfølldu, þá ed eg em underlagdur, þá hiálpar hann mer.

7. Vertu nú til frids apthr mín sál, þvi Drottinn veiter þer hid góda.

8. Þvi þú hefir útrickt minne sálu úr daudanum, augum mínum af tárafølluuum, fótum mínum frá hrøsunenne.

9. Eg vil ganga fyrer Drottni, á lande þeirra lifendu.

10. Eg trúe, þar fyrer þá tala eg, enn eg verd nærsta miøg plágadur.

11. Eg sagde í mínu mistrauste: aller menn þá eru þeir lygarar.

12. Hvernenn skal eg Drottne endurgiallda, fyrer allar hans velgerder, þær ed hann veiter mer?

13. Þann heilsusama kaleik vil eg medtaka, og nafned Drottins predika.

14. Eg vil giallda Drottni mín heit, fyrer øllu hans fólke.

15. Daude hans heilagra er dyrmætur halldenn, fyrer Drottne.

16. O Drottinn! eg em þinn þiónn, eg em þinn þiónn, sonur þinnar ambáttar: þú hefir mín bønd í sundurslited.

17. Þer vil eg þacklæte offra, og nafned Drottins predika.

18. Eg vil giallda Drottne mín heit, fyrer øllu hans fólke.

19. J forgardenum hiá húse Drottins, í þer Jerusalem! halleluja!

## 117. Psalmur.

1. Lofed Drottinn aller heidingar, prísed hann aller lyder.

2. Þviad hans miskunseme og sannleikur hefir yferrád yfer oss eylíflegana, halleluja!

## 118. Psalmur.

1. Paked þer Drottne, þvíad hann er gódur, og hans miskunseme varer eylífligana.

2. Þad sege nú Jsrael: hans miskun varer eylífligana.

3. Þad sege nú húsed Arons, hans miskunseme varer ad eylífu.

4. Þeir sem óttast Drottenn sege nú: hans miskunseme varer eylífligana.

5. J hørmungenne ákallade eg Drottinn, og Drottinn bænheyrde mig og veitte mer huggun.

6. Drottinn er medur mer, þar fyrer hrædunst eg eigi, hvad meiga mer mennerner gera?

7. Drottinn er med mer, mer til hiálpar, og eg vil siá mína lysting á óvinum mínum.

8. Godt er ad treysta uppá Drottinn, og forláta sig eigi uppá mennena.

9. Godt er ad treysta uppá Drottinn, og vona eigi uppá høfdingiana.

10. Aller heidingiarner umkringia mig, enn í nafne Drottins þá vil eg høgga þá nidur.

11. Þeir umkringia mig øllumeigenn, enn í nafne Drottins vil eg nidurhøgga þá.

12. Þeir umkringia mig líka sem bíflugur, þeir kefiast so sem elldur í þyrnum, enn í nafne Drottins þá vil eg nidurhøgga þá.

13. Menn hrundu mer, þad eg skyllde falla, enn Drottinn hann hiálpar mer.

14. Drottinn er minn styrkur, og minn psalmur, og hann er mitt hiálpræde.

15. Menn syngia med fagnade af sigrenum í tialldbúdum rettferdugra, hægre høndenn Drottins bíhelldur sigrenum.

16. Hægre hønd Drottins er upphafenn: hægre hønd Drottins bíhelldur sigrenum.

17. Eg mun ei deya, helldur lífa, og kunngera verkenn Drottins.

18. Drottinn hann typtar mig ad vísu, enn hann gefur mig eigi daudanum.

19. Uppluked fyrer mer dyrum rettlætesins, so ad eg ganga þar inn, og Drottne þacker gere.

20. Þetta eru pær dyr Drottins, þeir rettferdugu munu þar inngánga.

21. Eg þacka þer, þad þú lítilleckader mig, og hiálpar mer.

22. Sá steirnenn sem uppbyggendur burtkasta, hann er ordenn ad hyrningar steine.

23. Þad er skeed af Drottne, og er undarlegt fyrer vorum augum.

24. Þetta er sá dagurenn, hvern Drottinn gerde, látum oss fagna, og vera glader á þeim hinum sama.

25. O Drottinn! hiálpa þú Drottinn! láttu vel luckast.

26. Lofadur se sá sem ad kemur í nafne Drottins, ver blessum ydur, sem erud af húse Drottins.

27. Drottinn er Gud, sá ed oss upplyser, pryded hátídena med ungvidar greinum, allt ad hornum alltaresins.

28. Þú ert minn Gud, og eg þacka þer minn Gud, eg vil prísa þig.

29. Þacked þer Drottne, þviad hann er gódur, og hans miskunseme varer eylíflegana.

## 119. Psalmur.

1. Sæler eru þeir sem flecklauser lifa, þeir ed ganga í løgmale Drottins.

2. Sæler eru þeir sem hallda hans vitnisbúrde, hverer ed leita hans af øllu hiarta.

3. Þvi hverer ed ganga á hans vegum, þeir gera ecke illt.

4. Þú hefir bøded vandlega ad hallda þín bodord.

5. Gud gæfe þad líferne mitt hellde út af allre alvøru þín rettinde.

6. Nær ed eg lít alleinasta á þín bodord, þá verd eg eigi til sk[illegible]mmar.

7. Eg þacka þer út af rettu hiarta, þad þú kenner mer rettenn þíns rettlætis.

8. Þinn rett vil eg hallda, yfergef þú mig alldrei.

9. Hvernenn fær æskumadurenn sinn veg geinged óstraffanlega? nær ed hann helldur sig epter þínum ordum.

10. Eg leita þín af øllu hiarta, lát mig eigi villt fara frá þínum bodordum.

11. Eg bíhelld þínu orde í mínu hiarta, so ad eg syndgest eigi á móte þer.

12. Lofadur sertu Drottinn! kenn mer þín rettinde.

13. Medur mínum vørum vil eg frammtelia øll rettinde þíns munns.

14. Eg gled mig af veigenum þinna vitnisbúrda, so sem yfer allskyns audæfum.

15. Eg tala þad, hvad þú hefir bøded, og athuga þína vegu.

16. Til þinna rettinda hefi eg lysting, og forgleyme eigi þínum ordum.

17. Ger þínum þión vel til, so eg life og hallde þitt ord.

18. Opna þú mín augu, so ad eg siáe þá furdanlegu hlute í þínu løgmále.

19. Eg em einn gestur á jørdu: fel eigi þín bodord fyrer mer.

20. Sála mín er í sundur mol- ud af forleinging epter þínum rett- indum alla tíma.

21. Þú straffar hina dramblátu. Bølvader seu aller þeir sem burt villast frá þínum bodordum.

22. Burt snú þú frá mer forsmán og fyrerlitning, þviad eg helld þí- na vitnisburde.

23. Høfdingiarner sitia þar einn- enn, og tala móte mer, enn þinn þiónn talar út af þínum rette.

24. Eg hefe lysting til þinna vit- nisbúrda, þeir eru mitt rádanente.

25. Sála mín hún liggur í dup- te; endurlífga þú mig epter þínu orde.

26. Eg framm tel mína vegu, og þú bænheyrer mig, kenn þú mer þín rettinde.

27. Undervísa þú mer veigenn þinna boderda, þá mun eg segia út af þínum dádsemdum.

28. Eg grem mig so, ad mitt hiarta vanmegnast: styrk mig epter þínu orde.

29. Snú frá mer þeim fals-vei- ge, og unn mer þíns løgmáls.

30. Veigenn sannleikssins hefi eg útvaled, þinn rett sette eg fyrer mig.

31. Eg áhange þínum vitnis- búrdum. Drottinn! lát mig eigi til skammar verda.

32. Nær ed þú hugsvalar hiarta mínu, þá hleyp eg veigenn þinna boderda.

33. Vísa þú mer Drottinn! veig- enn þinna rettinda, so þad eg býva- re þau allt til enda.

34. Undervísa þú mer, so eg be- vare þitt løgmál, og hallde þad af øllu hiarta.

35. Leid þú mig á veigenn þinna boderda, þviad eg hefe lysting þar til.

36. Hneig þú mitt hiarta til þinna vitnisbúrda, og eigi til fiár- ágyrndar.

37. Frásnú þú augum mínum, so ad þau líte eigi epter ónytsam- legum lærdome, helldur endurlífga þú mig á þínum vegum.

38. Láttu þinn þion þín bodord fastlega hallda fyrer þín ord, so ad eg óttest þig.

39. Snú þú frá mer þeirre for- smán er eg kvíde vid, þviad þinn rettur er elskulegur.

40. Siá þú, eg gyrnest þínar bi- falningar, endurlífga þú mig med- ur þínu rettlæte.

41. Drottinn! láttu mig sie þí- na nád, þitt hiálpræde, epter þínu orde.

42. So ad eg andsvara meige þeim ed mig lasta, þviad eg treyste uppá þitt ord.

43. Og svipt ei í burt úr mínum munne ordenu sannleikssins, þviad eg vona uppá þín rettinde.

44. Þitt løgmál vil eg vardvei- ta alla tíma, um alldur og ad ey- lífu.

45. Og gladvær þá geing eg, þviad eg leita þinna boderda.

46. Eg tala af þínum vitnisbúrd- um fyrer kongunum, og skømm- unst mín eigi.

47. Og hefe lysting á þínum bod- ordum, og þau eru mer kær.

48. Og eg hef mínar hendur upp til þinna boderda, þau er mer eru kær, og tala um þinn rett.

49. Minnstu þións þíns hi í orde þínu, á hvert þú letst mig treysta.

50. Þad er mín huggun í minne eymd, þviad þitt ord þad endur- lífgar mig.

51. Hiner drambláto hæda ad mer, þó vík eg eigi af þínu løg- mále.

52. Drottinn! nær ed þad kem- ur mer í hug, hvernenn þú hefir

dæmt ⁊ frá veralldarennar upphafe, þá hughreystunst eg.

53. Eg upptendrast á móte þeim ógudlegu sem þitt løgmál yfergefa.

54. Þín rettinde eru mín saung vísa í mínu húse.

55. Drottinn! á náttarþele minnest eg þíns nafns, og geyme ad þínu løgmále.

56. Þad er minn fesióður, ad eg vardveite þínar bodaner.

57. Eg hefe sagt: Drottinn! þad skal mín erfd vera, ad eg geyme þína vegu.

58. Eg grátbæne af øllu hiarta fyrer þínu auglite, vertu mer miskunsamur, epter þínu orde.

59. Eg hugleide mína vegu, og sný mínum fótum til þinna vitnisbúrda.

60. Eg flyte mer, og forsóma mig eigi, til ad hallda þín bodord.

61. Hópur hinna ógudlegu ræner mig, enn eg forgleyme eigi þínu løgmále.

62. Um midnætted stend eg upp þer þacker ad gera, fyrer rettenn þíns rettlætis.

63. Eg helld mig til þeirra sem þig óttast, og þín bodord vardveita.

64. Drottinn! jørdenn er full þinnar miskunar: kenn mer þín rettinde.

65. Drottinn! þínum þión gerer þú til góda, epter orde þínu.

66. Kenn þú mer heilnæma sidu, og vidurkenning, þvíad eg trúe þínum bodordum.

67. Adur enn eg lítillættur vard, fór eg villt, enn nu helld eg þín ord.

68. Þú ert liúfur og gódgiarn, kenn mer þín rettinde.

69. Hiner dramblátu kveikia upp lygar um mig, enn eg helld af øllu hiarta þín bodord.

70. Þeirra hiarta er storked sem mør, enn eg hefe lysting á þínu løgmále.

71. Þad er mer liuft, ad þú hefir lítillættann mig, so ad eg lære þín rettinde.

72. Løgmáled þíns munns er mer liúfara helldur enn mørg þúsund stycke gulls og silfurs.

73. Hønd þín hefir gert mig, og tilbúed: undervísa mer, so ad eg læri þín bodord.

74. Þeir, sem óttast þig, siá mig, og gledia sig, þvíad eg vona á þitt ord.

75. Drottinn! eg veit, þad þíner domar eru retter, og trúlega þá lítillætter þú mig.

76. Þín miskun hlytur mín huggun ad vera, epter því sem þú hefir þínum þióni heited.

77. Láttu þína miskun koma yfer mig, so ad eg life, þvíad eg hefe lysting til þíns løgmáls.

78. Oh! ad hiner dramblátu mættu til skammar verda, þeir ed med lygunum nidurþryckia mig, enn eg tala af þínum bodordum.

79. Oh! ad þeir mættu hallda sig til mín, sem þig óttast, og þeir ed þeckia þína vitnisbúrde.

80. Mitt hiarta þad blífe rett skickad, í þínum rettindum, so ad eg verde eigi til skammar.

81. Sálu mína forleinger epter þínu hiálpræde: eg vona uppá þitt ord.

82. Mín augu þau lánga epter þínu orde, og segia: hvenær munt þú hugsvala mer?

83. Þvíad eg em líka sem ein húd í reyk, þínum rettindum forgleyme eg eigi.

84. Hversu lenge skal þinn þiónn bída? hvenær villtu láta dóm ganga um mína offsóknara.

85. Hiner dramblátu grafa mer

grafer, þær sem eigi eru epter þínu løgmále.

86. Pín bodord eru eigi utann sannleikur: Þeir offækia mig med lygum, hiálpa þú mer!

87. Ad mestu þá hafa þeir fyrerfared mer á jørdu, enn eg yfergef eigi þín bodord.

88. Endurlífga þú mig fyrer miskunsæme þína, so ad eg vardveite vitnisbúrde þíns munns.

89. Ord þitt Drottinn! blífur æfinnlega, so vídt sem himenenn er.

90. Pinn sannleikur varer um alldur og æfe. Pú tilbióst jørdena, og hún blífur standande.

91. Pad sama blífur epter þínu orde daglega, þviad aller hluter hlióta þer ad þióna.

92. Ef ad þitt løgmál hefde eigi mín huggun vered, þá hefde eg farest í minne eymd.

93. Pínum bifalningum vil eg alldrei gleyma, þviad þú endurnærer mig med þeim.

94. Eg em þinn, hiálpa þú mer, þviad eg leita bifalninga þinna.

95. Hiner ógudlegu sitia um mig, so ad þeir fyrerkome mer, enn eg gæte ad þínum vitnisbúrdum.

96. Allra hluta hefe eg séd einn enda, enn þitt bodord varer.

97. Hversu eg elska þitt løgmál so miog! daglega ræde eg um þad.

98. Med þínu bodorde gerer þú mig hyggnare enn míner óviner eru, þvi eylíflegana þá er þad minn fesiódur.

99. Eg em lærdare enn aller míner læresedur, þviad þíner vitnisbúrder eru mín ræda.

100. Eg em skinsamare ennølldungarner, þviad eg helld þínar skipaner.

101. Eg varna mínum fótum vid øllum vondum veige, so eg vardveite þín ord.

102. Eg hneige eigi af þínum rette, þviad þú mentar mig.

103. Pitt ord er mínum munne sætar á enn hunáng.

104. Pitt ord gerer mig forsiálann, þar fyrer hata eg alla falska vegu.

105. Ord þitt er lampe fóta minna, og lios á mínum vegum.

106. Eg sver, og vil hallda þad, ad eg vil hallda rettinde þíns rettlætis.

107. Nærsta em eg audmyktur, Drottinn! endurlífga þú mig epter þínu orde.

108. Láttu þer þocknast Drottinn! þad viliugt offur míns munns, og kenn mer þína dóma.

109. Eg ber mína sálu ætíd í mínum høndum, og eg forgleyme eigi þínu løgmále.

110. Hiner ógudlegu leggia fyrer mig snørur, enn eg villest eigi frá þínum bifalningum.

111. Píner vitnisbúrder eru mín eylíf arfleifd, þviad þeir eru mín hiartans unadsemd.

112. Eg hneige mitt hiarta, til ad gera epter þínum rettindum alltjafnt og eylíflegana.

113. Eg hata vankande anda, enn elska þitt løgmál.

114. Pú ert mín hlíf og skiølldur, á þitt ord þá vona eg.

115. Víked frá mer þer illskufuller, míns Guds bodord vil eg hallda.

116. Vidhalld þú mer fyrer þitt ord, so ad eg life, og lát mig eigi yfer von minne til skammar verda,

117. Styrk mig, so ad eg hressunst vid, þá vil eg alla tíma mína lysting hafa á þínum rettindum.

118. Pú nidurtredur alla þá sem frá þínum rettlætingum villt fara,

þviad þeirra svik eru eigi utan lygd.

119. Þú burt sleyger ollum ó gudlegum á jordunne sem gialle, þar fyrer elska eg þína vitnisbúrde.

120. Eg em hræddut fyrer þer, so ad mitt holld þad skelfur, eg hrædunst fyrer þínum rette.

121. Eg helld med rettenum og rettlætenu: gef mig eigi þeim ofur sem mer vilia ófríke gera.

122. Forsvara þinn þión, og hugheyst hann, so þeir hiner drambsátu gere mer engann yfergang.

123. Mín augu þau forleinger epter þínu hiálpræde, og epter orde þíns rettlætis.

124. Giør þú vid þión þinn epter miskun þinne, og kenn mer þinn rett.

125. Eg em þinn þiónn, leidréttu mig, so þad eg medkeune þína vitnisbúrde.

126. Tíme er til, þad Drottinn gere þar ad: þeir hafa þitt løgmál í sundur slited.

127. Þar fyrer elska eg þín bodord, framar enn gull, og framar enn rauda gull.

128. Þar fyrer helld eg greiduglega allar þínar skipaner, all enn falskegann veg hefi eg ad hatre.

129. Þíner vitnisbúrder eru furdanleger, þar fyrer helldur þá sála mín.

130. Nær ed þitt ord opinberast, þá gledur þad, og gerer vísa þá einfølldu.

131. Eg lyk mínum munne upp, og gyrnest þinna bodorda, þviad mig forleinger þar epter.

132. Snú þer til mín, og ver þú mer miskunsamur, epter þvi sem þú ert vanur ad gera vid þá, sem þitt nafn elska.

133. Lát minn gang óskeikuglegann vera í þínum ordum, og lát engenn ranginde drottna yfer mer.

134. Frelsa mig í frá áseilne mannanna, þá vil eg hallda þínar skipaner.

135. Láttu andlit þitt lysa yfer þræle þínum, og kenn mer þín rettinde.

136. Mín augu sliót a í vatne, af þvi ad þitt løgmál þad verdur ei hallded.

137. Rettlátur ert þú Drottinn! og þitt ord er rett.

138. Þú hefir vitnisbúrdena þíns rettlætis, og sannleikann, streingelega boded.

139. Eg var þvi nær dáudur af vandlætingu, af þvi þad míner mótstødumenn forgleyma þínum ordum.

140. Þitt ord er vel hreinsad, og þinn þiónn hann elskar þad.

141. Eg em lítelsháttar og fyrerlitenn, enn eg gleyme þó eigi þínum bodordum.

142. Þitt rettlæte, er eitt eylíft rettlæte, og þitt løgmál er sannleikurenn.

143. Angist og naud hafa hitt uppá mig, enn eg hefe lysting til þinna bodorda.

144. Rettlæted þinna vitnisbúrda er eylísligt: leidrettu mig, þá life eg.

145. Eg kalla af øllu hiarta: bænheyr þú mig, Drottinn! ad eg hallde þinn rett.

146. Eg kalla til þín: hiálpa þú mer, so ad eg hallde þína vitnisbúrde.

147. Árla þá kem eg og kalla. á þitt ord vona eg.

148. Snemmendes vakna eg upp, so ad eg tali um þitt ord.

149. Heyr þú raust mína epter náð þinne, Drottinn! endurlífga þú mig epter þínum rettindum.

150. Míner illſkufuller offokn-endur villdu til vid mig, og eru fiarlæger frá þ nu løgmále.

151. Drottinn! þu ert nálægur, og þín bodord eru eigi nema ſannleikurenn.

152. Adur viſſa eg þad fyrri, ad þú hefder þína vitnisbúrde eylíf-ligana grundvallad.

153. Alittu eymd mína, og frelſa mig; hiálpa mer út, þviad eg forgleyme eigi þínu løgmále.

154. Frammfylg þú málefne mínu, og frelſa mig: endurlífga þú mig fyrer þitt ord.

155. Fiarlægt er hiálpræde þeim ógudlegu, þviad þeir akta eigi þín rettinde.

156. Drottinn! þín miſkunſeme er mikel, lífga þú mig epter rett-indum þínum.

157. Míner offóknarar og mót-ſtødumenn eru marger, enn eg vík eigi af þínum vitnisburdum.

158 Eg ſe þá forſmánara, og þad angrar mig, ad þeir halld a eigi þín ord.

159. Siá þú! eg elſka þín bod-ord, Drottinn! endurlífga þú mig epter miſkunſeme þinne.

160. Þitt ord er eigi annad enn ſannleikur, allur rettur þinnar rett-lætingar varer eylífliga.

161. Høfdingiarner offækia mig fyrer enga ſøk, og mitt hiarta er óttaſleiged fyrer þínum ordum.

162. Eg gled mig yfer þínu orde, ſo ſem ſá ed miked herfáng fær.

163. Lygenne er eg reidur og hefe andſtygd þar á, enn þitt løg-mál elſka eg.

164. Siøſinnum á deigenum ſag-da eg þer lof, fyrer ſaker rettlætis þinna dóma.

165. Mikenn frid hafa þeir ſem þitt løgmál elſka, og þeir munu eigi raſa.

166. Drottinn! eg vænte þíns hiálpræðis, og gere epter þínum bodordum.

167. Sála mín vardveiter þína vitnisbúrde, og elſkar þá mikelega.

168. Eg helld þín bodord og þína vitnisbúrde, þviad aller míner veiger eru fyrer þer.

169. Drottinn! láttu mína kløg-un koma fyrer þig; leidrettu mig epter orde þínu.

170. Láttu mína grátbeidne koma fyrer þig, frelſa þú mig epter orde þínu.

171. Mínar varer ſkulu lofſyngia, þá ed þú kenner mer þinn rett.

172. Mín tunga ſkal ſína ræðu hafa umm þitt ord, þviad øll þín bod-ord eru rett.

173. Þína hønd láttu mer hiá-ſtod veita, þviad eg hefe þín bodord útvaled.

174. Drottinn! mig forleinger epter þínu hiálpræde, og eg hefe lyſting á þínu løgmále.

175. Sálu mína láttu lifa, ſo ad hún lofe þig, og þín rettinde hiálpe mer.

176. Eg em ſvo ſem villtur og fortapadur ſaudur, leita þú ad þín-um þión, þviad eg forgleyme eigi þínum bodordum!

## 120. Pſalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Eg kalla til Drottins í minne neyd, og hann bænheyrer mig.

2. Drottinn! frelſa þú mína ſálu í frá þeim lygemunnum, og í frá þeim følſku tungum.

3. Hvad kann þer ſú falſkleg tunga ad gera? og hvøru fær hun til vegar komed?

4. Hún er ſo ſem hvaßt ſkeyte hins ſterka, líka ſem elldur í einum eineberia vide.

5. Vei mer! þad eg em útlendur á medal Mesech, og hlyt ad byggia medal tialldbuda Kedars.

6. Pad verdur sálu minne langt ad búa hiá þeim, sem fridenn hata.

7. Eg helld fridenn; enn nær eg tala, þá hefia þeir upp stríd.

## 121. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Min augu hef eg upp til fiallanna, af hverum mer kemur hiálpenn.

2. Min hiálp kemur frá Drottne, þeim sem gert hefir himen og jörd.

3. Pinn fót mun hann ei skeika láta: og sá ed þig vardveiter, hann sefur eigi.

4. Siá þú! sá hver ed vardveiter Israel, hann sefur eigi; og ei syfiar hann.

5. Drottinn hann vardveiter þig, Drottinn er þinn skugge yfer þinne hægre hende.

6. So ad sólenn brenne eigi þig á degenum, eigi helldur tungled á náttarþelenu.

7. Drottinn hann vardveite þig fyrer öllu illu; hann vardveite þína sálu.

8. Drottinn hann vardveite þína útgaungu og inngaungu, nú hedan í frá og ad eylífu!

## 122. Psalmur.

Saungur Davids í hákórnum.

1. Af því þá gled eg mig, þad til mín er sagt: ad ver skulum inngang í hús Drottins.

2. Og þad vorer fætur munu standa í þínum portum Jerusalem!

3. Jerusalem er uppbygd, þad hún se ein borg, þar ed menn eiga tilsamans ad koma.

4. Par ed kynkvíslernar skulu uppganga, sem adjer, kynkvísler Drottins, til ad predika Israels fólke, til ad þacka nafnenu Drottins.

5. Pviad þar eru tilsetter stolarner til domsins, stolarner hussens Davids.

6. Osked Jerusalem lucku. Peim gange vel sem elska þig.

7. Fridur þá se hid innra, innan þinna múrveggia, og lucka í þínum höllum.

8. Fyrer minna brædra og vina saker, vil eg þer fridarens óska.

9. Fyrer hussens saker Drottins Guds vors, vil eg leita þíns besta.

## 123. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Til þín upphef eg mín augu, þú sem situr á himnum.

2. Siá þú! líka so sem þad augunn þenaranna horfa uppá hendur sinna lánardrottna, so sem þad augun þiónustukvinnunnar uppá hendur sinnar matmodur, líka so horfa vor augu uppá Drottinn Gud vorn, þangad til hann miskunar oss.

3. Vertu oss miskunsamur Drottinn! vertu oss miskunsamur, þviad ver erum miög fuller forachtunar.

4. Hardla miög eru sáler vorar fullar út af spotte drambsamra, og fyrerlituingu dramblátra.

## 124. Psalmur.

Saungur Davids í hákórnum.

1. Ef Drottinn være eigi hiá oss, þá munde Israel segia.

2. Ef Drottinn være eigi hiá oss, nær ed mennerner setia sig upp móte oss.

3. Pá uppsvelgdu þeir oss lifande, nær þeirra reide gremst yfer oss.

4. Pá hefde vatned dreckt oss,

straumarner geingu upp yfer vora sál.

5. Þá hefde vøtnenn geinged ofhátt yfer vorar sáler.

6. Lofadur se Drottinn! Þad hann gefur oss eigi til veidebrádar í þeirra tennur.

7. Sála vor er burt sloppenn, líka sem fugl út af veidemannsins snøru, snaraun er sundurslitenn, og ver erum í burt leyster.

8. Vor hiálp stendur í nafne Drottins, þess sem gert hefir himen og jørd.

## 125. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Hverer ed treysta á Drottinn þeir munu eigi falla, helldur eylífligana blífa, líka sem fialled Zion.

2. Kringum Jerusalem eru fiøll, og Drottinn er í kringum sitt folk, nú hedan í frá ad eylífu.

3. Þviad ríkis svíra hinna ógudlegu, mun eigi blífa yfer flocknum rettferdugra, so þad hiner rettlátu útrette eigi sína hønd til ranglæteſins.

4. Drottinn! ger godt þeim gódu og frómu hiørtum.

5. Enn hiner sem frá hverfa á sína bogna vegu, þá sømu mun Drottinn burtdrífa med illgerdamønnum, enn fridur se yfer Israel.

## 126. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Þegar ed Drottinn leyser hina hertefnu Zions, þá munum ver verda so sem þeir ed dreymer.

2. Þá mun vor munnur fullur af hlátre, og vor tunga full af hrósun vera. Þá mun og sagt vera á medal þeirra heidnu: Drottinn hefir mikla hlute vid þá gert.

3. Drottinn hefir mikla hlute vid oss gert, þar ut af erum ver glader.

4. Drottinn snú voru fangelse, líka sem ad þú þurkader vatned í sudrenu.

5. Þeir ed med tárunum nidursá munu med føgnudenum uppskera.

6. Þeir ganga út og gráta, og bera ágæt sæde, og koma med fagnade, og bera sín bindene.

## 127. Psalmur.

Saungur Salomonis í hákórnum.

1. Ef Drottinn bygger eigi húsed, þá erfida þeir til einskis sem þad uppbyggia. Ef Drottinn vardveiter eigi borgena, þá vaker vøkumadurenn til forgefens.

2. Þad kemur til einskis, ad þer snemma uppstanded, og þar epterá lenge sited, og eted ydart braud med hriggd, þviad hann gefur sínum ástvinum þad sofande.

3. Siá! børnenn eru ein gáfa Drottins, og sá líkamans ávøxtur er ein gáfa.

4. Líka sem skeyted í øflugs manns hende, eins tingast þeir ungu sveinar.

5. Sæll er sá sem sitt koffur hefir fullt af þeim hinum sømu, þeir munu eigi til skammar verda, nær ed þeir eiga vid sína óvine í portunum

## 128. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Sæll er sá sem óttast Drottinn, og geingur á hans vegum.

2. Ut af erfide handa þinna muntu næra þig. Sæll ertu, þer gengur vel.

3. Þín húsfreya mun vera so sem ávaxtarsamur víinvidur umhverfis þitt hús; þín børn so sem vidsmiørs vidar kvister í kringum þitt matbord.

4. Siá þú! so verdur sá madur blessadur sem óttast Drottinn.

5. Drottinn mun blessa þig af Zion, so ad þú siáer auðlegðena Jerusalem alla þína lífdaga.

6. Og þú munt siá þín barnabørn, fridenn yfer Israel.

## 129. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Optsinnis hafa þeir þreyngt ad mer, í frá barnæsku minne, so sege Israel.

2. Optsinnis þá hafa þeir þreyngt ad mer, í frá barnæsku minne, enn þeir hafa eigi yfirbugad mig.

3. A mínum hrigg hafa þeir plógsmennerner plægt, og sín plogfør laung dreiged.

4. Drottinn, sá ed rettlátur er, hefir reip hinna ógudlegu í sundur høgged.

5. Oh! ad þeir mættu til skammar verda, og snúast umhæl, aller þeir sem Zion grauter eru!

6. Oh! ad þeir hliote ad vera so sem grafed á ræfrum uppe, hvert ed visnar ádur enn þad upprætest!

7. Ut af hveru ad sláttumadurenn fyller eigi sína hønd, og eigi helldur hann sitt fang sem bindenenn tilsamansbindur.

8. Og þeir ed framm hiá ganga munu eigi segia: blessun Drottins se yfer ydur; ver blessum ydur í nafne Drottins.

## 130. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Burt úr diúpenu hrópa eg, Drottinn! til þín.

2. Heyr þú Drottinn! mína rødd, látu þitt eyra hyggia ad røddu minnar grátbeidne.

3. Ef ad þú Drottinn! villt til reikna syndernar, Drottinn! hver má þad standast?

4. Þviad í hiá þer er fyrergefningenn, so ad menn óttest þig.

5. Eg vænte Drottins, mín sála hún bídur, og eg vona uppá hans ord.

6. Mín sála hún bídur Drottins, í frá einnre morgun vøkunne, og til anarar.

7. Israel vone uppá Drottinn, þviad hiá Drottne er miskunseminn, og hiá honum er gnogleg endurlausn.

8. Og hann mun frelsa Israel, út af øllum sínum syndum.

## 131. Psalmur.

Saungur Davids í hákórnum.

1. Drottinn! mitt hiarta er eigi hofmódugt, og mín augu eru eigi stærelát, og eg geing eigi í mikilsháttar efnum, þeim mer eru ofhá.

2. Ef ad eg eigi sette og stillte sálu mína, þá verde mín sála afuanenn, líka sem sá ed afuanenn er sinne módur.

3. Israel vone uppá Drottinn, nú og allt hedan í frá ad eylífu.

## 132. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Minnstu Drottinn! á David, og allt þad hann hefir lidid.

2. Hver ed sór Drottne, og trúlofade hinum volldugа Jacobs.

3. Eg vil ei í tialldbud míns heimelis ganga, og ei helldur mig uppleggia í minnar sængar hvílu.

4. Mín augu vil eg eigi láta sofa, og ecke helldur mína augnahuarma dotta láta.

5. Allt þangad til eg finn fyrer Drottne einn stad, til íbyggingar þeim megtuga Jacobs.

6. Siá þú! ver heyrum út af honum í Ephrata, ver høfum hann funded á vøllum skógarins.

7. Ver vilum innganga í hans

tialldbúd, og tilbidia fyrer hans fótskør.

8. Drottinn! tak þig upp til þinnar hvíldar, þú og ørkenn þinnar magtar.

9. Þína kennemenn lát sig íklædest med rettvísenne, og þína heilaga gledia sig.

10. Svipt ei í burt ríkisstiørnenne þíns hins smurda, vegna þíns þións Davids.

11. Drottinn hann sór David einn sannann eid: frá hønum mun hann eigi ser snúa: avøxt þíns lífs vil eg setia yfer þinn stól.

12. Ef ad þín børn hallda minn sáttmála, og mína vitnisbúrde, hvera eg mun kenna þeim, þá skulu og einnenn þeirra børn sitia á þínum stóle æfenlega.

13 Þviad Drottinn útvalde Zion, og hefir lysting þar í þeim stad ad búa.

14. Þetta er mín hvílld æfenlega, her vil eg byggia, þvi þad þocknast mer vel.

15. Hennar vister vil eg blessa, og hennar fátækum nægd brauds gefa,

16. Hennar kennemenn vil eg hiálprædenu íklæda, og hennar heilager skulu gladværer vera.

17. Þar í þeim stad skal upp ganga horned Davids, mínum þeim hinum smurda hefi eg eitt lios tilbúed.

18. Hans óvine vil eg forsmánenne íklæda, enn yfer hønum skal blomgast hans Corona.

## 133. Psalmur.

Saungur Davids í hákórnum.

1. Siá þú! hversu ágætt og elskulegt þad er, ad brædurner búa hver vid annann samþyckelega.

2. Líka sem þad dyrmæta balsamum er, hvert ed af høfde Aarons ofann rennur, í allt hans skegg, þad sem ofann flytur á hans klæde.

3. So sem ed náttdøggenn, sú ed af Hermon ofann fellur á fialled Zion, þviad þar í þeim stad fyrerheiter Drottinn blessanenne og lífenu, um allder og ad eylífu.

## 134. Psalmur.

Saungur í hákórnum.

1. Siá! lofed Drottinn aller þiónustumenn Drottins, þer sem standed á náttarþele í húse Drottins.

2. Upphefed ydrar hendur í helgedomenum, og lofed Drottinn.

3. Drottinn blesse dig út af Zion, sá ed gert hefir himen og jørd.

## 135. Psalmur.

Halleluja.

1. Lofed nafned Drottins! lofed þer þionustumenn Drottins!

2. Þer sem standed í húse Drottins, í forgarde hussens Guds vors.

3. Lofed Drottinn, þviad Drottinn er gódgiarn: lofsynged hans nafne, þviad hann er lystelegur.

4. Þviad Drottinn útvalde ser Jacob, Jsrael ser til eigenndoms.

5. Þviad eg veit þad, ad Drottinn er mikell, og vor Drottinn er yfer øllum Gudum.

6. Allt hvad hann vill, þad gerer hann, á himnum og jørdu, og á siónum, og í øllum diúpunum.

7. Hann sem skyenn lætur uppganga af jardarennar enda, hver ed elldingar gerer med regnenu, sá ed vindenn lætur koma úr leyndum stødum.

8. Hann, hver ed sló frumbúrdena á Egyptalande, bæde mannanna og so fenadarins.

9. Og let sín teikn og stormerke koma yfer þig Egyptaland, yfer Pharao og alla hans þiónustumenn

10. Hann sá ed sló marga lyde, og volldnga konunga deydde.

11. Sihon kongenn Ammoritarum, og konunginn í Basan, og øll kongaríkenn í Canaan.

12. Og gaf þeirra land til arfleifdar, til arfleifdar sínu fólke Jsrael.

13. Þitt nafn Drottinn! varer eylífligana, Drottinn! þín minning hún varer um alldur og æfe.

14. Þviad Drottinn mun dæma sitt folk, og sínum þiónustumønn um miskunsamur vera.

15. Skúrgodenn heidenna þióda eru silfur og gull, af mannanna høndum gerd.

16. Þau hafa munn og mæla eigi: þau hafa augu og siá eigi.

17. Þau hafa eyru og heyra eigi, og eingenn andardráttur er í þeirra munne.

18. Þeir ed þau gera eru eins líka, aller þeir sem treysta á þau.

19. Húsed Jsraels lofe Drottinn: lofed Drottinn þer af húse Arons.

20. Þer út af húse Levi, lofed Drottinn. Þer sem óttested Drottinn, lofed Drottinn!

21. Lofadur se Drottinn út af Zion, sá ed til Jerusalem bygger, Halleluja.

## 136. Psalmur.

1. Þacked þer Drottni, þvi hann er gódur; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

2. Þacked Gude allra Guda; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

3. Þacked Drottne allra drottna; þviad hans miskunseme varer eylífliga.

4. Hann ed alleinn gerer mikel stórmerke; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

5. Hann hver ed himenenn hefir gert so skickanlega; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

6. Hann sá ed jordena hefir útbreidt yfer vøtnunum; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

7. Hann sá ed þau miklu liósenn hefir gert; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

8. Sólena, deigenum til stiornunar; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

9. Tungled og stiørnurnar, nóttunne fyrer ad standa; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

10. Hann sá ed Egyptaland sló á þeirra frumbúrdum; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

11. Og Jsrael út þadan leidde; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

12. Fyer volldnga hønd og útrettann armlegg; þviad hans miskunseme varer eylífliga.

13. Hann sá ed sundurskipte hafenu rauda í tvo hlute; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

14. Og let Jsrael þar ígegnum ganga; þviat hans miskunseme varer eylífliga.

15. Hann hver ed steypte Pharaone og hans herlide í hafenu rauda; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

16. Hann sá ed sitt fólk leidde ígegnum eydemørkena; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

17. Sá ed nidursló mikels háttar konunga; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

18. Og íhelsló megtuga konga; þviat hans miskunseme varer eylífslegana.

19. Sihon þann kongenn Ammoritanna; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

20. Og Og kongenn til Basan; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

21. Og gaf þeirra land til arf leifdar; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

22. Til arfleifdar sínum þion Israel; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

23. Þvi hann minnteft á oss, þá ed ver vorum underþrickter; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

24. Og hann frelsade oss frá óvinum vorum; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

25. Hann, hver ed fædslu gefur ollu hollde; þviad hans miskunseme varer eylífliga.

26. Þacked Gude af himnum; þviad hans miskunseme varer eylífligana.

## 137. Psalmur.

1. Vid vøtnenn í Babylon sáttum ver og gretum, þá ed ver minntunst á Zion.

2. Vorar hørpur heingdum ver upp á viderenn, þann sem þar var.

3. Þviad þeir í þeim sama stad skipudu oss ad syngia; þeir oss fongudum helldu, og gladværum ad vera í vorum harmkvælingum, kære: synged oss einn loffsaung út af Zion.

4. Hvernenn skylldum ver lofsaung Drottens syngia í annarlegu lande?

5. Gleyme eg þer Jerusalem, þá verde minne hægre hende for gleymt.

6. Mín tunga lode mer vid goma ef eg minnest þín eigi, ef ad eg læt eigi Jerusalem vera mína hæstu glede.

7. Drottinn! minnstu á børn Edoms, á deige Jerusalem, þeir ed segia: afmáed, afmáed, allt í hennar grunn.

8. Þú hin bretna dotter Babylon! vel verde þeim ed þer gellbur, so sem þú hefir vid oss gert.

9. Vel verde þeim sem taka smáborn, og sundur bráka þau vid stein.

## 138. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Eg þacka þer ut af ollu hiarta: fyrer gudunum vil eg þer lofsyngia.

2. Eg vil bidia til þíns heilaga musteris, og þínu nafne þacker gera, fyrer þína miskunseme og sannleika, þvi þitt nafn hefir þú miklad framar enn alla hlute, fyrer þitt ord.

3. Nær ed eg ákolla þig, þá bænheyr þu mig, og gef sálu minne krapt mikenn.

4. Drottinn! aller kongar á jørdu þacka þer, þad þeir heyra ordenn munns þíns.

5. Og syngia á vegum Drottins, þad dyrdenn Drottins se mikel.

6. Þvigd Drottinn hann er hár, og lítur á hid audvirdelega, og þecker hinn ríkeláta áleingdar.

7. Þó ad eg reike í midre harmkvælingunne þá endurlífgar þú mig, og útbreider þína hønd yfer reide óvina minna, og hiálpar mer med þinne hægre hende.

8. Drottinn mun þar ending á gera minna vegna, Drottinn! þín miskunseme er eylíflég, verkenn þína handa viler þú eigi yfergefa.

## 139. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.

1. Drottinn! þú rannsakar mig, og þecker mig.

2. Hvert eg sit, edur stend upp, þá veitstu það. Þú formerker minar hugrenningar áleingdar.
3. Eg geing edur ligg, þá ertu í kringum mig, og ser alla mína vegu.
4. Þviad siá þú! þar er ecke ord á minne tungu, það þú, Drottinn! viter það ei allt.
5. Þú kemur því til vegar hvad eg gere fyrr edur seinna, og helldur þinne hende yfer mer.
6. Soddan þecking er mer óffurdanleg og of há, eg fæ hana eigi skinad.
7. Hvert skal eg fara fyrer þínum anda? edur hvert skal eg flya fyrer þínu auglite?
8. Fare eg upp í himenenn þá ertu þar; bygge eg mer rúm í hælvíte, siá! þá ertu einnenn þar.
9. Take eg vænge morgunrodans, og være vid það ytsta siáfar haf,
10. Þá munde þar þó í þeim stad þín hønd leida mig, og þín hægre hønd hallda mer.
11. Sege eg: myrkred má hylia mig, þá hlytur einnenn nóttenn lióst ad vera í kring n mig.
12. Því myrkurenn eru einnenn ei myrkur hiá þer, og nóttenn hún lyser sem dagurenn, myrkred er so sem liosed.
13. Þviad mín nyru þau hefir þú í þínu vallde. Þú varst yfer mer í módurkvide.
14. Eg þacka þer þar fyrer, ad eg em dádsamlega skapadur. Merkeleg þá eru þín verk, og það sama þecker mín sála vel.
15. Mín bein voru þer og eigi ókunnug, þá ad eg var í leynum gerdur, þá ad eg myndadur vard under nidre í jørdunne.
16. Þín augu þau sáu mig þá ad eg enn eigi fullskapadur var, og aller dagar voru í þína bók skrifader, þeir ed enn vera skylldu, og þeirra hinna somu var þar þá eingenn.
17. Enn hversu kostelegar ad eru fyrer mer, Gud! þínar hugsaner? hvernenn er þeirra so mikell fiollde?
18. Skyllde eg eiga ad telia þær, þá munde þeirra fiollde fleyre vera enn sandurenn. Nær ad eg uppvakna em eg enn í hiá þer.
19. Æ Gud! ad þú ihelslæer hina ógudlegu, og það hiner blódgiørnu hlytu frá mer ad víkia.
20. Þviad þeir tala um þig lastlega, og þíner óvíner hefia sig upp án sakar.
21. Eg hata þá, Drottinn! sem þig hata, og mer misslíkar vid þá, það þeir setia sig í gegn þer.
22. Eg hata þá af alvøru rettre, þar fyrer eru þeir míner óvíner.
23. Rannsaka þú mig Gud! og reyn mitt hiarta; prófa þú mig, og reyn hvernenn ad eg meini það.
24. Siá þú! hvert ad eg em á vondum veige, og leid þú mig uppá þann eylífa veigenn.

## 140. Psalmur.

Psalmur Davids fyrer ad syngia.
2. Frelsa þú mig Drottinn! í frá þeim vondu mønnum. Vardveit mig fyrer þeim illskufullum lyd.
3. Þeir ed hugsa illt í sínum hiørtum, og daglega uppvekia stríd.
4. Þeir hvetia sínar tungur sem høggormar. Nødru eitur er under þeirra vørum, Sela.
5. Vardveit mig, Drottinn! fyrer hende ógudhræddra. Geym þú mín fyrer þeim illskumønnum, sem þeinka minne gaungu um ad vellta.
6. Hiner dramblátu leggia snørur fyrer mig, og breida út streinge

mer til ánetiunar, og egna upp tál-gilldrurnar fyrer mig á veigenum, Sela.

7. Enn eg sege til Drottins: Þú ert minn Gud! merk þú Drottinn! rødd minnar grátbeidne.

8 Drottinn! Drottinn! mitt öfl-ugt hiálpræde, þú hlífer mínu høfde á ftríds-tímanum.

9. Drottinn! veit eigi ómilldum sína gyrnd; ftirk eigi þeirra mót-þróan; þeir kynne ad forhefia sig þar út af, Sela.

10. Ogæfann, af hvørre ad óvin-er miner rádgaft um, falle hún yfer þeirra høfud.

11. Hann mun elldingum útau-sa yfer þá: med ellde mun hann þá diúpt í jørdena nidurflá, so ad þeir ftandi alldrei upp.

12. Illur munnur mun enga lucku hafa á jørdunne: einn vondur íllfku fullur madur mun fordrif-enn og útrekenn verda.

13. Þviad eg veit, þad Drottinn mun málefne hins fáráda, og rett-arfare hins fátæka frammfylgia.

14. Og þeir rettferdugu munu þínu nafne þacker gera, og hiner frómu munu fyrer þínu auglite blífa.

## 141. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Drottinn! eg hrópa til þín, flyttu þer til mín; hygg ad raust minne, nær ad eg ákalla þig.

2. Þad mín bæn mætte duga fyrer þer sem reykelfisoffur; minna handa upphafning líka sem annad kvølldtíma offur.

3. Drottinn vardveit minn munn, og geym mínar varer.

4. Hneig eigi mitt hiarta uppá neitt vondt, til ad fremia ógudlegt athæfe medur illvirkiunum, so ad eg ete eigi út af því, sem þeim þockn-aft.

5. Hinn rettferduge fláe mig vin-samlega og ftraffe mig. Þad sama mun mer so gera godt sem balsam-um á mínu høfde, því ad eg bid id-uglega, ad þeir gere mer engann ftada.

6. Þeirra lærefedur hlióte nid-ur ad hrynia yfer eitt biarg, so mu-nu menn þá mínu lærdom heyra, þad hann áftsamlegur se.

7. Vor bein þau eru í sundur-dreifd allt til helvítis, so sem einn sundurrífur og umveltter jørdunne.

8. Þviad uppá þig Drottinn! Drottinn! líta mín augu: eg trey-fte á þig, útfkufa eigi sálu minne.

9. Vardveit mig fyrer þeirre snørunne, sem þeir hafa lagt mer, og fyrer gilldruune þeirra illvirki-anna.

10. Hiner ógudlegu, hver med ødrum, innfalle í þeirra eiged net, enn eg med jafnade mun ganga þar framm hiá.

## 142. Psalmur.

Undervísun Davids, til ad bidia, þá er hann var í hellernum.

2. Medur minne raustu kalla eg til Drottins; med raustu minne grát-bæne eg Drottinn.

3. Eg úthelle mínu mále fyrer hønum, og kunngere fyrer hønum mína neyd.

4. Nær ed minn ande er í á-naud ftaddur þá er þer umhugad um mig. Þeir leggia snørur á veigenn fyrer mig, þar ed eg uppá geing.

5. Skoda þú til hægre handar, og siá! þar vill engenn þeckia mig; eg kann eigi ad umflya: engenn er sá ed hyrder um mína sálu.

6. Drottinn! til þín kalla eg, og sege: Þú ert mín hiálpar von; mitt hlutfkipte í lande þeirra lifendu.

7. Hygg ad minne kveinan, þviad eg verd nærsta þvingadur, frelsa þú mig fra mínum offóknurum, þviad þeir eru mer ofmegtuger.

8. Leid mína sál út af dyblyzunne, so ad eg þacki þínu nafne. Hiner rettferdugu skulu safnast til mín, nær ed þú gerer mer til góda.

## 143. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Drottinn! heyr þú mína bæn, hygg ad minne grátbeidne, fyrer þíns sannleiks saker, bænheyr þú mig þíns rettlætis vegna.

2. Og gack eigi í dóm vid þræl þinn, þviad fyrer þer er eingenn lifande manna rettferdugur.

3. Þviad óvinurenn offæker sálu mína, og nidur slær mitt líf til jardar: hann leggur mig í myrkred, so sem hina daudu í verolldenne.

4. Og minn ande þreyngest í mer; mitt hiarta er fortært í mínu brioste.

5. Eg minnunst á hina fyrre tídena, eg tala um alla þína gerninga, og seige út af verkum þinna handa.

6. Eg útbreide mínar hendur til þín: mína sálu þyrster epter þer, so sem annad þurt land, Sela.

7. Drottinn! bænheyr þú mig brádlegana: minn ande forgeingur. Skyl eigi þínu andlite fyrer mer, so ad eg verde eigi líkur þeim sem í grofena fara.

8. Láttu mig snemma heyra þína nád, þviad eg vona uppá þig: gef þú mer kunnann þann veigenn hvar ad eg skal uppá ganga, þviad mig forleinger epter þer.

9. Frelsa þú mig minn Gud! út af óvinum mínum, til þín flý eg.

10. Kenn þú mer ad gera epter þínum vilia, þviad þú ert minn Gud: þinn gódur ande leide mig á slettum veige.

11. Drottinn! endurlífga þú mig, fyrer þíns nafns saker: leid þú sál mína út af neydenne, þíns rettlætis vegna.

12. Og eydelegg óvine mína, þinnar miskunar vegna, og glata þeim ollum sem þreyngia ad minne sálu, þviad eg em þinn þræll.

## 144. Psalmur.

Psalmur Davids.

1. Lofadur se Drottinn minn hreyste, sá ed lærer mínar hendur ad strída, og mína knefa ad beriast.

2. Mín miskun og minn kastale, mín hlíf og minn frelsáre, minn skiolldur, uppá hvern eg treyste, sá ed þvingar folk mitt under mig.

3. Drottinn! hvad er madurenn þess þad þú annest hann? og mannsins barn ad þú virder hann so?

4. Er madurenn eigi so sem ecke: hans tíme í burt lídur, so sem annar skugge.

5. Drottinn! hneig þú þína himna, og stig her ofann: kom þú vid fiollenn, so ad upp af þeim riúke.

6. Lát elldingar fliúga og í sundurdreif þeim: skiot þínum geislum, og skelf þá.

7. Send þú þína hønd ofann af hædenne, og leys mig, og frelsa mig út af þeim stóru vøtnum, af hende þeirra annarlegu barna.

8. Hverra lærdomur ónytsamlegur er, og þeirra verk eru følsk.

9. Gud! þer vil eg syngia nyann lofsaung, eg vil spila fyrer þer á tíu streingia psalltara.

10. Þú sem sigurinn gefur kongungunum, og frelsar þinn þiónDa-

vid af mordingia sverde hins illgiarna.

11. Leys mig einnenn, og frelsa mig út af hende þeirra annarlegu barna, hverra lærdomur ad er engenn nytseme, og þeirra verk eru falskleg.

12. Pad vorer syner vaxe í ungdóme sínum, sem nyplantader kvister, og vorar dætur so sem útskorner pilarar, líka sem haller.

13. Og ad vor matar hús seu full, þau ed framm kunna ad gefa hvera nægt epter atra, so þad vor er sauder frammleide þusund, og hundrad þusund í vorum þorpum.

14. Pad vorer uxar frammko me ærnu erfide, so þad engenn skade, ecke tion, ne nockurt kiøgumál se á vorum strætum.

15. Hepped er þad fólk, hveru ed so gengur, enn hepped er þad fólk, hvers Gud, Drottinn er.

## 145. Psalmur.

Davids Lof.

1. Eg vil þig upphefia, minn Gud! þú konungur, og lofa þitt nafn um alldur og ad eylífu.

2. Daglegana vil eg lofa þig, og prísa þitt nafn æ og ad eylífu.

3. Mikell er Drottinn, og miøg loflegur, og hans mikeleike er óumrædelegur.

4. Barnabørnenn munu prísa þín verk, og segia af þínu valldе.

5. Eg vil tala um þína ágætu og dælegu magt, og um þínar dádsemder.

6. So ad menn meige tala um þín dyrdleg verk, og ad menn frammtele þína dyrd.

7. So þad menn prýse þína hina miklu miskun, og hrósе þínu rettlæte.

8. Nádugur og miskunsamur er Drottinn, þolennmódur og stórrar gædsku.

9. Drottinn er øllum nádugur, og hann miskunar sig yfer øll sín verk.

10. Øll þín verk, Drottinn! skulu þer þacka, og þíner heilager þig lofa.

11. Og hrósa dyrdenne þíns kongsríkis, og af þínu magtar-vellde segia.

12. So þad mannanna børnum verde þitt magtar-vellde kunnugt, og sú hin mikla vegsemdardyrd þíns ríkis.

13. Pitt ríke er eitt eylíft ríke, og þín ríkisstiornan varer um alldur og æfe.

14. Drottinn hann stydur alla þá sem falla, og reiser upp þá alla, sem nidur eru slegner.

15. Allra augu vona uppá þig, og þú gefur þeim þeirra fædslu á sínum tíma.

16. Pú upplykur þinne hende, og sedur allt hvad lifer, med velþocknan.

17. Drottinn er rettferdugur í øllum sínum vegum, og heilagur í øllum sínum verkum.

18. Drottinn er øllum nálægur þeim hann ákalla, øllum þeim sem hann med alvøru ákalla.

19. Hann gerer þad, hvad hiner gudhræddu gyrnast, og heyrer þeirra ákall, og hiálpar þeim.

20. Drottinn vardveiter alla sem hann elska, og hann mun afmá alla ógudlega.

21. Minn munnur skal Drottins lof mæla, og allt holld lofe hans heilaga nafn, um allder og eylífsegana.

## 146. Psalmur.

Halleluja.

1. Lofa þú Drottenn sála mín.

2. Eg vil Drottinn lofa so lenge sem eg life, og mínum Gude lofsyngia á medan þad eg em her.

3. Treysted ei uppá høfdingiana, þeir eru menn, þeir kunna ei gi ad hiálpa.

4. Þviad mannsins ande verdur út þadann ad fara, og hann mun aptur ad jørdu verda, þá eru allar hans rádagerder ónytar.

5. Sæll er sá hvers hiálp þad Gud Jacobs er, hvers von ad stendur uppá Drottinn hans Gud.

6. Hver ed himenenn, jørdena, sióenn, og allt hvad þar er inne, hefir gert, hann sá ed trú helldur eylíflegana.

7. Hann ed rettenn útvegar þeim sem ofbellded lídur, hver ed sædslu gefur hungrudum.

8. Drottinn hann leyser þá fønguðu. Drottinn hann gefur syn blindum. Drottinn retter þá vid, sem nidurslegner eru. Drottenn elskar þa rettiátu.

9. Drottinn hann vardveiter hina framande og føburleysingiana, og vid mogt helldur ekkiunum, og aptur á bak snyr veigenum ógud hræddra.

10. Drottenn er kongur eylíflegana, þinn Gud, Zion! um alldur og æfe, halleluja.

## 147. Psalmur.

1. Lofed þer Drottinn! Þviad vorn Gud ad lofa, þad er forkostulegur hlutur; sodan lof er lystelegt og bærlegt.

2. Drottinn hann uppbygger Jerusalem, og hefur tilsamans hina útdrifnu i Israel.

3. Hann læknar sundurknosada í hiørtunum, og bindur um þeirra sárende.

4. Hann telur stiørnurnar, og nefner þær allar med nøfnum.

5. Vor Drottenn er mikell, og hann hefir mikenn krapt, og er óyfergripanlegt, hvernenn hann stiórnar.

6. Drottinn veiter uppreisn hinum fáráda, og hrinder hinum ógudlega allt í grunn.

7. Synged hver til annars Drottne med þakkargerd, og lofed vorn Gud med hørpum.

8. Hver ed himenenn hylur med skyunum, og gefur regn á jørdena, hann sá ed lætur grased vaxa á fiøllunum.

9. Hver ed fenadenum gefur sitt fodur, þeim ungu hrøfnum sem til hans kalla.

10. Eigi hefir hann lyst á styrkleik hestsins, ne helldur þocknan á nockurs manns beinum.

11. Drottinn hefir þocknan á þeim sem hann óttast, sem vona á hans miskunseme.

12. Prísa þú Jerusalem Drottinn! lofa þú Zion þinn Gud.

13. Þviad hann fastar gerer grindernar þinna portdyra, og blessar þín børn þar fyrer innann.

14. Hann veiter þínum landsálfum frid, og sedur þig med þvi hinu besta hveite.

15. Hann sender sína rædu á jørdena, hans ord hleypur snarlegana.

16. Hann gefir snióenn so sem ull; hann dreifer hrimfrostenu sem øsku.

17. Hann fleyger sínum ís sem munnbitum, hver fær stadest fyrer hans froste.

18. Hann seger: þá brádnar þad nidur, hann lætur sinn vind blása, þá þidnar þad upp.

19. Hann kunngerer Jacob sín ord, Israel sína sidu og rettinde.

20. Slikt gerer hann vid enga

heidingia, ne lætur þá vita sín rett-inde, halleluja.

## 148. Psalmur.

Halleluja.

1. Lofed þer himnar Drottinn! lofed hann í hædunum.

2. Lofed hann aller hans einglar. Lofed hann allur hans her.

3. Lofed hann sól og tungl: lofed hann allar lysande stiornur.

4. Lofed hann þer himnar alla veganaz og vøtnenn þau, sem uppe eru yfer himnenum.

5. Þau skulu lofa nafned Drottins, þvi hann bydur, og þá verdur þad skapad.

6. Hann helldur þeim um alldur og ad eylífu: hann nídur skickar þeim, so ad þau meiga eigi ødruvís ganga.

7. Lofed Drottinn á jørdu, þer hvalfiskar, og øll diúpenn.

8. Elldur, hagl, sniór og ude, stormvindar, sem hans ord framm-kvæmed.

9. Fiøllenn og aller hálsar, friof-sømtre, og aller cedrusvider.

10. Dyrenn og allskyns fenadur, skridkvikendenn og fuglarner.

11. Þer kongar á jørdunne, og allt fólked, høfdingiarner, og aller domendur á jørdu.

12. Yngesmennerner og meyarn-ar, gamler menn med þeim ungu.

13. Skulu lofa nafned Drottins, þviad hans nafn alleina sta er hátt: hans lof gengur so vídt út sem himen og jørd er.

14. Og hann upphefur horned síns fólks. Aller hans heilager eiga hann ad lofa, Israels børn, þad fólked er hønum þiónar, halleluja.

## 149. Psalmur.

Halleluja.

1. Synged Drottne nyann lof-saung! samkundann heilagra skal hann lofa.

2. Israel glede sig í hønum, sem hann hefir gert. Zions børn vere gladvær yfer sínum konunge.

3. Hans nafn skulu þeir í dans-enum lofa: medur bumbum og hørpum skulu þeir hønum spila.

4. Þviad Drottinn hefir þocknan á sínu fólke, hann hiálpar hin-um fáráda ágætlegana.

5. Hiner heiløgu skulu glader vera, og vegsama og heidra í sínum hvílu-rumum.

6. Þeirra munnur skal upphe-fia Gud, og skulu beitt sverd ser í høndum hafa.

7. So ad þeir meige hefndena fremia medal heidenna, refsingena medal folksins.

8. Þeirra konunga ad binda med kedium, og þeirra edalborna med járnvidium.

9. So ad þeir gere þeim þann rett, hvar af skrifad er: soddan dyrd munu aller hans heilager hafa, halleluja.

## 150. Psalmur.

Halleluja.

1. Lofed Drottinn í hans helgedó-me. Lofed hann í festingunne hans magtar.

2. Lofed hann í sínum verkum, lofed hann í sinne mikellre dyrd.

3. Lofed hann medur basunum; lofed hann medur psølturum og hørpum.

4. Lofed hann medur bumbum og dansleikum; lofed hann med streingium og pípum.

5. Lofed hann med hliódhvell-um cymbalis; lofed hann med vel hliódande cymbalis.

6. Allt, hvad andardrátt hefir, lofe Drottinn, halleluja!

Ender Psalltarans.

# Ordskvider Salomonis.

## 1. Capitule.

1. Þesser eru ordskvider Salomonis, Israels kongs, sonar Davids.

2. Til ad nema speke og tyftan, skilning,

3. Hyggende, rettvíse, rett og einfalldlegleika.

4. Ad þeir fávísu verde vísser, og ungmennenn skinsøm og forsiál.

5. Hver hyggenn er sá hlustar til og betrar sig, og sá sem er skinsamur lætur vid sig ráda.

6. So hann skile ordskvidena, og þeirra þydingar, kenningar vísdomsmanna, og þeirra epterlíkingar.

7. Otte Drottins er upphaf til ad læra: hyrdulauser menn forsmá vitsku og tyftan.

8. Sonur minn! hlyd þú aga fødur þíns, og yfergef eigi bod þinnar módur.

9. Þvíad slíkt er þínu høfde fegur pryde, og ein kedia á þínum hálse.

10. Sonur minn! þegar iller skalkar locka þig, þá fylg þú þeim eigi.

11. Nær þeir segia: far þú med oss, vær vilium umsitia blód, og stunda epter þeim saklausu fyrer utan orsøk.

12. Ver vilum gleypa þá lifande, so sem helvíte, og þá enu frómu, so sem þá ed nidurfara í grøfena.

13. Ver vilum finna mikel audæfe, og fylla hús vor med herfange.

14. Hætt þú til þess med oss, aller ver skulum einn siód hafa.

15. Sonur minn! gack þú eigi þann veg med þeim, vara þú þinn fót vid þeirra stig.

16. Þvíad þeirra fætur hlaupa til ills, og flyta ser til blóds uthellingar.

17. Þvíad til einskis er neted ad leggia fyrer augu fuglanna.

18. So og umsitia þeir siálfer sín á medal hvers annars blód, og einn stundar epter annars líse.

19. So gera aller ágiarner, ad hver tekur lífed frá ødrum.

20. Spekenn kallar úte, og lætur til sín heyra á strætum.

21. Hún kallar í portdyrum, medal lydsins, hún talar sínum ordum í borgenne.

22. Hversu lenge viled þer hiner fávísu fávísser vera, og þer sem crud hádgiarner lyst hafa til hádungar? og hyrdulauser lærdomenn hata?

23. Snúed ydur til minnar strøffunar. Siáed! eg vil frammsegia ydur minn anda, og mín ord ydur kunngera.

24. Af þvi eg þá kalla, og þer viled eigi; eg útrette mína hønd, og engenn gefur þar gaum ad,

25. Og þer láted fara allt mitt rád, og viled eigi mína strøffun,

26. Þvi vil eg líka hlæa í ydru áfelle, og spotta ydur, þegar þad kemur sem þer óttest.

27. Nær ed yfer ydur kemur, sem annar stormur, þad þer óttest, og ydart áfall, sem eitt stormvedur, þegar angist og neyd yfer ydur kemur.

28. Þá munu þer kalla til mín, enn eg mun eigi svar gefa; þer munu árla leita ad mer, og eigi finna.

29. Þar fyrer, ad þer høtudud kenningena, og ótta Drottins villdud þer eigi hafa.

30. Þeir villdu eigi mín ráð, og lytu allar mínar straffaner.

31. Því skulu þeir neyta af ávöxtum sinna vega, og af sínum ráðum sadder verda.

32. Það sem þá enu fávísu lyst er, deyder þá, og lucka þeirra hyrduleysu tortíner þeim.

33. Enn hver sá mer hlyder mun ugglaus vera, og nóg hafa, og óttast enga ólucku.

## 2. Capitule.

1. Sonur minn! viler þú mína rædu medtaka, og mínum bodordum hiá þer hallda,

2. Þá lát þú eyra þitt ad vísdome gaum gefa, og hneig þú með athuga hiarta þitt þar til.

3. Þviad ef þu med kostgæfne þar epter kallar og þar um bidur,

4. Ef þú leitar epter hønum, so sem silfre, og grenslast þar epter, so sem epter fesióð,

5. Þá muntu skilia otta Drottins, og þeking Guds finna.

6. Þviad Drottinn gefur vitsku, og út af hans munne kemur spéke, og skilningur.

7. Hann lætur vel vegna þeim hreinskilnu, og verndar þá enu frómu.

8. Og geymer þeirra sem rett gera, og vardveiter vegu sinna heilagrá.

9. Þá muntu skilia rettlæted og rettenn, og frómleika, og allann gódann veg.

10. Ef ad vitskann geingur þer til hiarta, so ad þú giarnan lærer,

11. Þá munu hin gódu rádenn geyma þig, og skinsemenn mun vardveita þig.

12. So þu komer eigi á veigenn þeirra vondu, edur á medal vanartugra málskaps manna.

13. Sem ad yfergefa retta braut, og ganga myrka vegu.

14. Hverer ad glediest illt ad gera, og eru fagnande í sínum illum ranglnénum athøfnum.

15. Hverer ed sínum vegum umbreyta, og fylgia sínum afvegum.

16. Ad þú komer eigi til annars manns kvinnu, og þeirrar, sem eigi er þín, hver ed gefur fogur ord.

17. Og fyrerlætur Hetra síns ungdóms, og gleymer sáttmála síns Guds.

18. Þviad hennar hús hneiger sig til daudans, og hennar gangur til tapadra.

19. Aller þeir, sem til hennar inn ganga, koma eigi aptur, og høndla eigi lífsins veg.

20. So ad þú ganger á gódum veige, og ferl á stigum rettferdugra.

21. Þviad rettláter munu í landenu búa, og frómer þar inne blífa.

22. Enn ógudhrædder munu af landenu uppræctast, og þeir forácktararner munu verda þar út af afmáder.

## 3. Capitule.

1. Sonur minn! gleym eigi mínu løgmále, og geym í hiarta þinu mín bodord.

2. Þviad þau munu færa þer langa lífdaga, og góð ár og frid.

3. Miskun og trúskapur mun þig eigi yfergefa. Heing þu þau um háls þer, og skrifa þau á spiølld hiarta þíns.

4. So muntu hylle og klókinde finna, sem Gude og mønnum vel líka.

5. Forlát þig uppá Drottinn af øllu hiarta, og treyst eigi uppá þitt hyggiuvit.

6. Hugsa helldur til hans, í øll-

um þínum vegum, þá mun hann þig rett leiða.

7. Eigi skalltu þykiast hyggenn vera: óttast helldur Drottinn, og vík frá illu.

8. Það mun þínum nafla heilnæmt vera, og þín bein hressa.

9. Heidra Drottinn af audæfum þínum, og af frumvexte allra þinna inntekta.

10. Þá munu fullar verda kornhlødur þínar, og þínar vínpressur áf vínberialøg út af flóa.

11. Sonur minn! burtkasta eigi tyftan Drottins, og vert eigi óþolugur vid hans hyrting.

12. Þviad hvern þann, sem Drottinn elskar, þann hyrter hann, og hefir á hønum þocka, so sem fader á syne.

13. Sæll er sá madur er vísdómenn finnur, og sá madur er skinsemena ødlast.

14. Þviad það er betra ad høndla med hana enn med silfur, og hennar inntekt er betre enn gull.

15. Hún er dyrmætare enn gimsteinar, og allt hvad þú æskia kannt, er eigi vid hana samjafnande.

16. Langer lífdagar eru á hægre hønd henne, og heidur og audæfe á vinstre hønd henne.

17. Hennar veiger eru liufleger veiger, og aller hennar stíger eru fridur.

18. Hún er lífsins tre øllum þeim, sem høndla hana, og þeir eru sæler sem henne hallda.

19. Þviad fyrer spekena hefir Drottinn jørdena grundvallad, og himnana tilreidt fyrer sitt rád.

20. Med hans vísdome eru undirdiúpenn sundurgreind, og skyenn med døgg driúpande gerd.

21. Sonur minn! láttu eigi hana frá þínum augum víkia, þá muntu farsæll og hyggenn verda.

22. Það mun verda líf sálu þinne, og munnur þinn mun verda ástudlegur.

23. Þá muntu hættulaust ganga á þínum veige, so ad þinn fotur mun ei ásteyta sig.

24. Legger þú þig, þá muntu eigi óttasleigenn verda, helldur sætlega sofa.

25. So þú þurfer eigi uggande ad vera fyrer voveiflegre skelfingu, ne fyrer áhlaupe ógudlegra, þegar það kemur.

26. Þviad Drottinn er þitt traust, hann geymer þinn fót, so ad hann verde eigi fangenn.

27. Affeg eigi hinum naudstøddu gódt ad gera, ef þín hønd hefir efne til þad ad gera.

28. Seg eigi til vinar þíns: far í burt, og kom aptur, á morgun skal eg gefa þer, ef þú hefir þad þó vel.

29. Uppþeink eigi illt ímóte vin þínum, sem byr hiá þer uppá trú.

30. Kífa þú eigi vid nockurn mann án sakar, ef hann hefir eigi gert þer nockud illt.

31. Øfunda eigi illskufullann mann, og vel þer enga af hans vegum.

32. Þviad Drottins hefir andstygd til þeirra fráføllnu, og hiá frómum er hans leyndar rád.

33. Bølvan Drottinns er í húse ógudrækenna; enn hús rettlátra mun blessad verda;

34. Ad hádgiørnum mun hann hæda; enn þeim aumu mun hann nádena gefa.

35. Þeir hiner vísu munu heidurenn erfa; enn þá heimsker komast hátt, verda þeir þó til skammar.

## 4. Capituli.

1. Heyred syner míner! hyrting
Ss *

fødurs ydars, gaumgæfed, ad þer læred og verded forstáler.

2. Þviad eg gef ydur einn góðann lærdóm: forláted ei mitt løgmál.

3. Þviad eg var sonur fødur míns, eitt blautt og einka (barn) fyrer minne módur.

4. Og hann kennde mer, og sagde: láttu þitt hiarta medtaka mitt ord; halltu mín bodord, so muntu lifa.

5. Medtak þú vísdóm; medtak þú skilning; gleym eigi, og vík eigi af rædu munns míns.

6. Yfergef hann eigi, so mun hann bevara þig, elska þú hann, so mun hann vardveita þig.

7. Þviad upphaf vitskunnar er það, ef madur heyrer hana giarnan, og hefir hyggendenn kærre enn øll audæfe.

8. Vird hana mikels, og mun hún hefia þig, og gera þig heidarlegann, ef þú umfadmar hana.

9. Hún mun þitt høfud fagurlega pryda, og pryda þig med einnre vænne koronu.

10. Þvi heyr þú sonur minn! og medtak mín ord, so munu ár þín mørg verda.

11. Eg vil leida þig á vísdómsins veg.

12. Eg vil leida þig á retta gøtu, so ad þá þú gengur veite þer eigi mæded þín ganga, og ad þú meider þig ei, þá þú hleypur.

13. Høndla þú agann; lát ei þar af; geym þú hann, þviad hann er þitt líf.

14. Kom þú eigi á stigu ógudlegra, og gack þú eigi á veige vondra manna.

15. Lát þú hann fara; gack eigi þar ó; víktu frá hønum, og gack þu framm hiá.

16. Þviad þeir sofa eigi nema þeir hafe illt gert, og þeir hvílast eigi utan þeir hafe gert skada.

17. Þviad þeir næra sig af ógudlegu braude, og drecka af mótþróans víne.

18. Enn stigur rettlátra skín sem annad liós, það sem frammlídur og lyser allt til hádegis.

19. Enn vegur ógudlegra er so sem myrkur, og þeir vita eigi hvar þeir munu detta.

20. Sonur minn! gaumgæf ord mín, og hneig eyra þitt til minnar rædu.

21. Lát þú þau eigi frá þínum augum fara; hyrdtu þau í hiarta þínu.

22. Þviad þau eru þeirra líf sem þau finna, og heilbrigde allra þeirra líkama.

23. Geym hiarta þitt med allre virkt, þviad þar út af gengur lifed.

24. Burtskúfa frá þer rangsnúnum munne, og láttu løstunarsamann munn vera langt frá þer.

25. Augu þín lát þú rett framm fyrer sig siá, og þína augnahvarma siá rett framm undan þer.

26. Lát þú þínar fætur ganga beint framm, so gengur þú vísst.

27. Hvarla hverke til hægre handar ne vinstre; snú þú þínum fótum frá illu.

## 5. Capitule.

1. Sonur minn! athuga mína speke, hneig eyru þín til minnar kenningar.

2. So þú bíhallder gódu ráde, og munnur þinn vite greinarmun ad gera.

3. Þviad skækunnar varer eru sætar so sem hunangsseimur, og hennar barke er miukare enn vidsmiør.

4. Enn sídar meir beiskur sem

malurt, og beittur so sem eitt tvieggiad sverd.

5. Fœtur hennar hlaupa nidur til daudans, hennar gangur nær til helvítis.

6. Eigi gengur hún á lífsins veige: óstødugur er hennar gangur, so hún veit eigi hvert hún gengur.

7. So hlyded mer nú, mín børn! og víked ei frá rœdu míns muns.

8. Lát vegu þína langt frá henne vera, og nálgast eigi hennar húsdyr.

9. Ad þú eigi annarlegum gefer þinn heidur, og þeim hrœdelegu þín ár.

10. So ad enger annarleger sig sede af þínum efnum, og þitt erfide eigi se í annars húse.

11. So ad þar epterá hlióter þú ad andvarpa, þegar þú hefir fortært þínu líse og gotse.

12. Og segia: æ! þvi hatade eg so tyftanena, og mitt hiarta forsmáde strøffunena?

13. Og eg hefe eigi hlydt raustu minna lærefedra, og eigi hneigt mitt eyra til þeirra sem mer kenndu?

14. Eg em so nær komenn í alla ólucku fyrer øllum lyd og øllu fólke.

15. Drecktu vatn úr þínum grøfum, og fliótande vatn úr þínum brunnum.

16. Láttu brunna þína útfliota, og þína vatnslæke á strætinn.

17. Enn haf þú þá alleina, og eingenn annarlegur med þer.

18. Þinn brunnur se blessadur, og fagna þú med húsfru þinnar æsku.

19. Hún er so elskuleg sem ein hind, og þeckeleg sem rádyr. Láttu hennar elsku þig ætid sedia, og skemt þer jafnan med hennar ást.

20. Sonur minn! hvar fyrer villtu unum hafa af annarlegre, og annarlega sadma?

21. Þvi serhvers manns veiger eru strax fyrer Drottne, og hann mæler jafnt allar þeirra gøngur.

22. Misgerder hins ógudlega munu hann høndla, og med snøru sinna synda mun hann halldenn verda.

23. Hann mun deya þar fyrer, ad hann vill ser eigi segiast láta; og saker sinnar mikellrar heimsku mun hønum eigi vel vegna.

## 6. Capitule.

1. Sonur minn! ef þú gengur í borgun fyrer náunga þinn, og þú hefir bunded þína hønd hiá framande manne,

2. Þá ertu bundenn med tale munns þíns, og fangenn med rœdu þíns munns.

3. So ger þú þó minn sonur! so, og frelsa þig, þviad þú ert komenn í hendur þínum náunga: skunda þú, þreyng ad, og frammkny þinn náunga.

4. Lát þín augu eigi sofa, ne augabrár þínar syfia.

5. Frelsa þú þig, so sem eitt rádyr frá hendenne, og so sem einn fugl af fuglafangarans hende.

6. Þú hinn late, far þú til maursins og umskygn hans sídu, og lær.

7. Þóat hverke hafe hann høfdingia, ne høfudsmann, ne Herra,

8. Tilreider hann þó sitt braud á sumrenu, og safnar saman sinne fœdu á kornskeru tímanum.

9. Þú hinn late, hversu leinge liggur þú? hvenær villt þú standa upp af þínum svefne?

10. Já! sofdu enn nú líted, dotta þú enn nockud líted, legg saman þínar hendur um litla stund, at þú sofer.

11. So mun fátæktenn fliótt

yfer þig koma, sem annar gaungumadur, og skorturenn sem einn vopnadur madur.

12. Einn óráduandur madur, einn skadsamlegur madur, hann gengur med rangsnúnum munne.

13. Bender med augunum, teiknar med fótunum, vísar med fingrunum.

14. Stundar óvallt illt, og rang snyr því í sínu hiarta, og kemur upp med þrætur.

15. Þar fyrer mun hans áfelle óvarlega ad hønum koma, og hann mun hastarlega sundurmarenn verda, so þar verdur eingenn hiólp.

16. Þessa sex hlute hatar Drottinn, og á siøunda hefir hann andstygd.

17. Drambsam augu, falska tungu, hendur þær ed úthella saklausu blóde.

18. Hiarta þad sem umgengst med vondum breckium, fætur þá sem flioter eru til skada ad gera.

19. Falsvott sem diarflega talar lyge. Og hann sem brædra á medal reiser sundurþycke.

20. Sonur minn! geym þú bodord fødur þíns, og forlát eigi þinnar módur løgmál.

21. Bind þú þau saman ætíd uppá hiarta þitt, og heing þau um háls þer.

22. So ad þau leide þig, þá þú gengur, og gæte þín, þá þu leggur þig nidur, og þau seu þín ræda, þá þu vaknar.

23. Þvi bodorded er skrid-liós, og løgmáled er eitt liós, og hirting tystunarennar er lífsins vegur.

24. Uppá þad þú verder vardaveittur frá illre konu, fyrer miukre tungu þeirrar hinn annarlegu.

25. Gyrnstu eigi hennar fegurt í þínu hiarta, og forgríp þig eigi í hennar augnabrám.

26. Þvi skækiann fyrkur af einum braud; enn eigennkona fangar þad edla líf.

27. Kann og nockur ad hallda elldе í skautenu so hann brenne ei sín klæde?

28. Hvernenn skal madur nockur ganga á ellds glódum, so hans fætur brenne eigi?

29. So gengur og þeim, sem til síns náunga konu gengur; sá er engenn óstraffadur sem hana snerter.

30. Þad er einum þióf eigi so mikel skamm, ad hann stele, til ad sedia sína ønd, ef hann er hungradur,

31. Og ef hann verdur fangenn, gelldur hann þad siøfallt aptur, og leggur framm allt gotsed í sínu húse.

32. Enn sá sem dryger hórdom med nockorre konu, hann er heimskur, hann fœrer sitt líf í gløtun,

33. Þar med hitter a hann plága og skømm, og hans brixle mun eig afmád verda.

34. Þviad mannsins grimmd vandlæter og þyrmer eigi á hefndar tímanum.

35. Og álítur engar personur þær sem forlíke, og medtekur ecke, þott þú villder miked gefa.

## 7. Capitule.

1. Sonur minn! vardveit mína rædu, og fel mitt bodord hiá þer.

2. Geym þú mitt bodord, þá muntu lifa, og mitt løgmál so sem augnastein þinn.

3. Bind þú þad á fingur þína, skrifa þad á spialld hiarta þíns,

4. Seig þú til spekennar: þú ert mín syster, og kalla vitskuna þína vinkonu,

5. So þú vardveittur verder fyr-

er framande konu, fyrer annarlegre, sem smiadrande ord gefur.

6. Þviad af glugganum í mínu húse, sá eg út um grindurnar.

7. Og eg sá á medal heimskra, og varo var á medal barnanna eins heimskufulls ungmennis.

8. Hann geck um stræted hiá einnre hyrningu, og geck á veigenum framm hiá hennar húse,

9. J rackrenu, ad kvølde dags, þegar ad náttade, og myrkur var.

10. Og siá þú, þá mætte hønum kona í hóruskarte, kyndug.

11. Galenn, og ótamenn, so ad hennar fætur kunnu eigi í hennar húse ad stadnæmast.

12. Nú er hún úte, nú er hún á strætunum, og umsitur í øllum hyrningum.

13. Hún greip til hans, og kyßte hann óbliuglega, og sagde til hans.

14. J dag hefi eg þackletisfórner fyrer mig bitalad fyrer mín heit.

15. Þvi em eg útgengenn ad mæta þer, þíns andlites snemma ad leita, og hefe þig fundeþ.

16. Eg hefe prydda mína sæng fagurlega med misslitum tiølldum af Egyptalande.

17. Eg hefe dreist um mína sæng myrru, aloes og kannel,

18. Kom, látum ockur nóg byliſe hafa til morguns, og fremium lysteleg fadmløg.

19. Þviad madurenn er eigi heima, hann er farenn fiarlægann veg.

20. Hann hafde med ser peninga-pungenn; hann kemur heim fyrst á hátídardeigenum.

21. Hún skrafade hann upp med mørgum ordum, og lockade hann med sínum smiadrande munne.

22. Hann fór strax epter henne, sem þá eitt naut er leidt til slátrunar-beckſins, og so sem til járnvidia, þar heimsker verda med straffader.

23. Þar til ad hún sundursneid hans lifur med pílunne, so sem þá einn fugl flyter ser til snørunnar, og veit eigi, ad þad kostar hans líf.

24. Þar fyrer heyred mer nú børn mín! og athugeþ rædu muuns míns.

25. Lát þitt hiarta eigi á hennar veg víkia, lát þig eigi villa á hennar gøtur.

26. Þvi hún hefir sært og fellt marga, og allskyns ypplouger eru af henne drepner.

27. Hennar hybyle eru vegur til helvítes, þar ad mean nidurstíga í daudans herberge.

## 8. Capitule.

1. Hvert kallar spekenn eigi? og vitskaun lætur til sín heyra?

2. Auglioslega á veigenum, og á strætunum stendur hún,

3. Vid portenn hiá stadnum, þar sem menn innganga ad dyrunum, hrópar hún.

4. O þer menn! eg kalla til ydar, og hrópa til lydsins.

5. Þer heimsker! merked vitskuna, og þer heimskufuller! legged þad uppá hiartad,

6. Heyred! þviad eg vil tala þad sem høfdinglegt er, og kenna þad sem rett er.

7. Þviad munnur minn skal sanninde tala, og mínar varer skulu hata þad, sem ógudlegt er,

8. Rettar eru allar rædur míns munns, þar er ei neitt rangsnúed í, ne falskt.

9. Allar eru þær beint framm þeim, sem þær skilia, og rettart þeim sem þær vilia medtaka.

10. Meiaked mína øgun, helldur

ur enn sil.fur, og meted meira lærdom enn kostulegt gull.

11. Hvïad vitskann er perlum betre, og allt, hvad æskia má, kann eigi vid hana ad samjafnast.

12. Eg vitskann by hiá hyggendunum, og eg kann ad gefa góo rád.

13. OtteDrottins hatar þad illa, dramblæte, metnad, og illann veg, og eg em óvinur rangsnunum munne.

14. Mitt er bæde rád og dád; eg hefe hyggende og magt.

15. Fyrer mig stiorna kóngarner, og rádsherrarner setia rettenn.

16. Fyrer mig ríkia høfdingiarner, og aller stiornarar á jørdu.

17. Eg elska þá sem mig elska, og þeir sem árla leita mín sinna mig.

18. Audæfe og dyrd eru med mer, sannarlegt gots og rettlæte.

19. Betre er minn ávøxtur, enn gull og kostulegt gull, og mín innfekt er betre enn útvaled silfur.

20. Eg geing á rettum veige, á strætum rettarins.

21. So ad eg vel rádstafe þeim mig elska, og gere fulla þeirra fesiódu.

22. Drottinn hefir haft mig í upphafe sinna vega: fyrr enn hann nockud gerde, var eg þar.

23. Eg em innsett frá evlífd, frá upphafe, fyrr enn jørdenn.

24. Þá underdiupenn voru enn eigi, var eg allareidu búenn, þá brunnarner uppspruttu enn eigi med vatne.

25. Adur enn fiøllenn voru nidursøckt; fyrr enn halsarner, var eg tilreidd.

26. Hann hafte þá eigi enn skapad jørdena, og þad á henne er, el helldur fiøllenn jardríkes.

27. Þegar hann tilreidde himnana, var eg þar. Þá hann luckte underdiúped med sinne mæling.

28. Þá hann feste skyenn hid efra; þá hann feste diúpsins brunna.

29. Þá hann sette siónum takmark, og vøtnunum, ad þau yfergengu eigi sína bifalning.

30. Þá hann lagde jardarennar grundvøll var eg verkmeistare hiá hønum, og hafde daglega mína lyst, og lek mer fyrer hønum alltíd.

31. Og eg lek á hans jardríke, og mín lyst er hiá mannanna børnum.

32. Þar fyrer hlyded mer nú mín børn! sæler eru þeir sem mína vegu hallda.

33. Heyred umvøndunena, og verded hyggner, og láted hana eigi frá ydur.

34. Sæll er sá madur, sem mer hlyder, ad hann vake daglega vid mínar dyr, ad hann hallde vørd vid dyrastafe minna dyra.

35. Hver mig finnur, sá finnur lífed, og mun gódvilld ødlast af Drottne.

36. Ennhver hann syndgast vid mig, sá meider sál sína: aller þeir sem hata mig elska daudann.

## 9. Capitule.

1. Vitskann bygde ser hús, og hió siø stolpa.

2. Slátrade fe sínu, og bar sitt vín upp, og bió sitt bord.

3. Og sende út sínar ambátter ad bióda uppá sal borgarennar.

4. Hver hann er bernskur kome hann her, og til heimskra sagde hún:

5. Komed og eted mitt braud, og drecked víned, þad eg í skenke.

6. Yfergefed bernsklegt athæfe, þá munud þer lifa, og ganged á skinsemennar veige.

7. Hver hann agar spelenn mann hann hlytur skømm uppá sig ad

taka, og *) hann vandar um vid ógudrækenn verdur hæddur.

8. Avíta eigi spelenn mann, hann hatar þig, ávíta hyggenn mann, og mun hann elska þig.

9. Gef þú vitrum manne, og mun hann enn hyggnare verda, kenn þú rettlátum, og mun hann lærdomenn ánka.

10. Upphaf vitskunnar er otte Drottins, og skinsemenn uemur þad sem heilagt er.

11. Þviad fyrer mig munu marger verda dagar þíner, og ár lífs þíns munu aukast.

12. Ertu vitur, so ertu þer vitur, ertu hádgiarn, muntu þad einnsamnu bera.

13. Þar er ein heimskufull galenn kona, full mælge, og veit ecke.

14. Hún situr í sínum húsdyrum á stóle, hátt upp í stadnum,

15. Ad bioda øllum þeim sem umfara, og rett ganga á sínum veige.

16. Sá, sem bernskur er, fare sá hingad, og til hins heimska talar hún.

17. Ofriáls vøtn eru sæt, og leyndar braud eru lystleg.

18. Enn hann veit eigi, ad í þeim stad er daude, og hennar gester í þvi diúpa helvíte.

Þesser eru Ordskvider Salomonis.

## 10. Capitule.

1. Einn vitur sonur gledur sinn fødur, enn fávís sonur er módur sinnar hrigd.

2. Orettferdugt fe stodar eigi, enn rettlæte frelsar frá dauda.

3. Eigi lætur Drottinn sál hins rettláta hungur þola, enn hann steypper fedrætte ógudlegra.

4. Ein lot hønd gerer fátækt, enn ein þrifenn hønd gerer audugann.

5. Hver hann saman dregur á sumrenu sá er hyggenn; enn sá ed hann sefur um kornskurdar-tímann, verdur ad skømm.

6. Blessanenn er yfer høfde hins rettláta, enn munn þeirra ógudhræddu yfer fellur þeirra illska.

7. Minning rettlátra blífur í blessan; enn nafn ógudrækenna fúnar.

8. Hver hann er hyggenn af hiarta, sá medtekur bodorded; enn sá sem heimskann munn hefir, verdur sleigenn.

9. Hver ed saklaus lifer, hann lifer óhultur; enn sá ed rangsnúenn er á sínum vegum, mun openber verda.

10. Hver hann bender med augunum uppreiser mædu; og sá ed heimskann munn hefir verdur sleigenn.

11. Munnur hins rettláta er lifande brunnur; enn munn ógudlegra mun hans þverud yfer falla.

12. Hatur kveiker upp deilur; enn kærleikurenn hylur allar misgerder.

13. J vorum viturs manns finnst viska; enn á bak hins heimska hæfer vøndur.

14. Hyggner menn geyma lærdomsins; enn munnur hins heimska er skelfingunne nálægur.

15. Ríkdómur audugs manns er hans sterkur stadur; enn hina fátæku gerer fátæktenn biúga.

16. Rettlátur madur neyter sinna audæfa til lífsins; enn ógudrækenn madur brúkar sínar inntekter til syndar.

17. Ad hallda øgunena er vegur til lífsins; enn sá sem hyrtingena yfergefur, hann fer villt.

18. Falsmunnar dylia hatur, og sá bakmálugur er, hann er einn dáre.

19. Hvar ad er margmælgenn

þar fer eigi framm án syndar; ennhver sínar varer hepter sá, er forsiáll.

20. Tunga hins rettláta er kostulegt silfur; enn ógudlegra hiarta er ecke.

21. Varer hins rettláta fæda marga; enn heimskir munu deya í sinne fávitsku.

22. Blessan Drottins audgar fyrer utan mædu.

23. Einn heimskur madur móiþróalega høndlar, og speast ad þar ofan á, enn sá madur er hyggenn, sem þad gaumgæfer.

24. Pad sem ógudhræddur madur óttast, mun yfer hann koma, og þad rettláter gyrnast, mun þeim gefást.

25. Ogudlegur madur er so sem stormur, sá sem sliott yfergengur, og eigi er framar; enn rettlátur madur hellst ad eylífu.

26. Sem ediked gerer tønnunum, og reykurenn angunum, svo gerer latur madur þeim er hann senda.

27. Otte Drottens eykur daganna, enn ár ógudrækenna munu styttast.

28. Bid rettlátra mun ad føgnude verda; enn von ómilldra fyrerferst.

29. Vegur Drottins er tráss rettláts manns; enn illgerdamenn eru hrædder.

30. Rettlátum manne verdur alldrei kollvarpad; enn ógudleger menn munu eigi í landenu blífa.

31. Munnur hins rettláta færer vísdom; enn munnur rangsnúenna manna verdur upprættur.

32. Varer rettláts manns kenna heilnæmelega hlute; enn munnur ógudlegra er rangsnúenn.

## 11. Capit.

1. Røng vog er andstygd Drottne; enn full vigt er hønum þægeleg.

2. Hvar od er dramblæte, þar er og fyrerlitning; enn vísdomur er hiá þeim auòmiúku.

3. Sakleyse mun leida þá gódu; enn illgyrne mun eydeleggia foracktarana.

4. Audæfe stoda eigi á deige reidennar; enn rettlæte frelsar frá dauda.

5. Rettlæte góds manns gerer hans veg slettann; enn hinn ógudlege mun falla fyrer sitt ógudlegt athæfe.

6. Rettlæte gódra manna mun þá frelsa; enn forsmánarar munu fanger verda í sinne illsku.

7. Nær ógudlegur madur deyr, so er tøpud von, og eptervæntan ranglátra verdur ad engu.

8. Sá rettláte verdur af neydenne freilstur, og sá hinn ógudlege kemur í hans stad.

9. Fyrer hræsnarans munn verdur hans náunge fordiarfadur, enn þad athuga rettláter menn, og verda frelsader.

10. Ein borg fagnar, nær rettlátum gengur vel; og þegar ógudleger menn fyrerfarast, verda menn glader.

11. Fyrer blessan rettferdugra uphefst einn stadur; enn fyrer munn ógudlegra verdur hann nidurbrotenn.

12. Hver sinn náunga smánar, sá er heimskur; enn einn vitur madur stiller þad.

13. Bakmálugur madur opennberar þad, sem hann veit leynelegt; enn sá sem med trúføstu hiarta er, hann leyner þvi.

14. Hvar ecke rádaneyte er, þar

fellur fólked, enn þar sem eru marg=er rádgiafar þar fer vel framm.

15. Hver hann gengur í borgun fyrer annann, hann mun skada hafa; enn sá sem ser vara tekur fyrer ad lofa, hønum er óhætt.

16. Ein ástudleg kvinna helldur heidrenum, enn tyrannar hallda audæfum.

17. Miskunsamur madur gerer síne sinu nockud godt; enn sá sem ómiskunsamur er, hreller einnenu sitt holld og blód.

18. Ogudlegra manna erfide mun ónytast; enn hver rettlætenu sæer, þad er ófallvallt gots.

19. Þviad rettlæte stodar til líffins; enn epter ad sækia illum hlutum, stodar til daudans.

20. Drottinn hefir andstygd á rangsnúnum hiørtum; og á gódum hefir hann þocknan.

21. Vondum stodar eigi, þó þeir take saman øllum høndum; enn sæde rettlátra mun frelsad verda.

22. Fríd kona án tucktar er sem svín med gullegt høfudband.

23. Ofk rettlátra hlytur þó vel ad luckast; enn von ógudlegra verdur ad ólucku.

24. Einn slipter út, og hefir æ meira; annar inne helldur þar hann skyllde eigi, og verdur þó fátækur.

25. Sú sála sem nóglega blessar, mun fitna; og sá sem gerer druckenn, mun og druckenn verda.

26. Hver korne inne helldur, þeim bølvar fólked; enn yfer þann sem þad selur, kemur blessan.

27. Hver hann leitar gods, þann skedur godt; enn sá sem epter ólucku sæker, hønum mun hún mæta.

28. Hver hann treyster á audæfe sín, hann mun undergangа; enn rettláter munu blomgast sem eitt lauf.

29. Hver hann hreller sitt eigid hús mun eignast vind kvarsskipte, og sá sem heimskur er, hlytur hyggins manns þræll ad vera.

30. Ávøxtur hins rettláta er lífs instre, og vitur madur annast fólked af hiarta.

31. Ef ad rettlátur hlytur ad þola á jørdunne, hvad miklu meir sá ógudrækne og synduge?

## 12. Capitule.

1. Hver sig lætur giarnann hirta mun hyggenn verda, enn sá er agalaus vill vera blífur heimskur.

2. Hver sú sem gódur er, hann fær huggun af Drottne; enn hyrdulaus madur fordæmer siálfann sig.

3. Ogudrækelegt athæfe stodar mannenum eigi; enn rót rettlátra mun blífa.

4. Ein þrifnadarsøm kona er síns manns korona; enn óþrifenn (kona) er rotnun í hans beinum.

5. Hvad þeir rettlátu rádleggia, þad eru óbrigduler hluter; enn þad þeir ógudlegu rádleggia, þad dregur á tálar.

6. Predikun ógudhræddra til vegar kemur blóds=úthellingu; enn munnur þeirra hinna gódu frelsar.

7. Ogudrækner menn verda kollvarpader, og verda eigi lengru; enn hús rettlátra stendur støduga.

8. Hyggens manns rád verdur prísad, enn hrecker verda til skammar.

9. Hver eigi er mikels umkomenn, og geymer síns, er betre enn sá, sem mikell vill vera, og er braudsvant.

10. Hinn rettláte aumkar sig yfer sínum fenade, enn hiarta ógudrækens manns er ómiskunsamt.

11. Hver á sínum akre erfidar, mun brauds gnægd hafa; enn hver hann gengur epter naudsyniaglaust efne, sá er heimskur.

12. Lysting hins ógudlega er þad, ad gera skada; enn rót rettlátra mun ávøxt fæ8ra.

13. Illur madur verdur gripenn í sínum eigenn falsklegum ordum; enn rettlátur madur umflyr neydena.

14. Margt godt fær einn fyrer munnsins ávøxt, og epter þvi sem hendurnar hafa forþent, verdur mannenum endurgolldeð.

15. Heimskum manne líka vel síner sider; enn sá er vitur, sem hlyder gódu ráde.

16. Heimskur madur syner fliott sínareide; enhver hann byrger (med ser) hádungena, sá er forsiáll.

17. Hver hann sannsøgull er, hann talar fríleqa út, þad sem rett er; enn liugvottur svíkur.

18. Hver óforsiálega frammser, stíngur, sem eitt sverd; enn tunga hyggenna manna er heilnæm.

19. Sannsøgull munnur stendur æfenlega stødugur; enn lygenn tunga stendst eigi lenge vid.

20. Þeir svíkia, sem illt ráð leggia; enn þeir sem til fridarins eggia gera føgnud.

21. Rettlátann mann mun eigi neitt illt ske; enn ógudleger munu fyllast af ólucku.

22. Lygner munnar eru Drottne svívirding; enn þeir sem trúlega handtera, líka hønum vel.

23. Einn vitur madur leyner vitskunne; enn hiarta dáranna út hrópar sína heimsku.

24. Idenn hønd mun drottna; enn sú sem løt er, mun hlióta skatt ad giallda.

25. Hriggd í hiartanu kreinker; enn eitt vingiarnlegt ord gledur.

26. Rettvís madur hefir betra enn hans náunge; enn vegur ógudlegra blecker þá.

27. Einum idiulausum luckast eigi sín høndlun; enn idenn madur verdur audugur.

28. Á þeim retta vege er lífed, og á þeim trodna stig er engenn daude.

## 13. Capitule.

1. Einn vitur sonur lætur sinn fødur aga sig, enn einn hædare hlyder eigi hirtingunne.

2. Munnsins ávaxtar nytur madurenn; enn forsmánarar þeinkia eigi utan mótþróa.

3. Hver sinn munn vardveiter, hann vardveiter sitt líf; ennhver hann er skammhleypenn med sínum munne, sá kemur í ognan.

4. Latur madur gyrnest og fær eigi; enn verkidner menn fá nóg.

5. Rettvís madur hatar lygarnar; enn ógudlegur madur skammar og hæder siálfann sig.

6. Rettlæted vardveiter hinn saklausa; enn ógudrækelegt athæfe leider mann í synd.

7. Margur er fátækur hiá miklum audæfum, og margur er ríkur hiá sinne fátækt.

8. Med audæfum kann madur ad hiálpa lífe sínu; enn einn fátækur madur heyrer eigi ávítan.

9. Liós rettlátra gerer glede; enn skriðliós ógudrækenna mun slockna.

10. Mille drambsamra eru iafnan deilur; enn vísdómurenn er hiá hyggnum.

11. Audæfe þverra þegar þeim er brudlad; enn þad sem menn tilsamans hallda þad verdur miked.

12. Sú von sem undandregst hrigger hiartad; enn þegar þad kemur, sem madur gyrnist, þad er lífsins tred.

13. Hver orded forsmáer, hann gerer siálfum ser skada, ennhver

hann óttast bodorded, þeim verdur þad launad.

14. Kenning hygginsmanns er lifande vatnsædur, til ad varast snorur daudans.

15. Eitt godt rád gerer hugarhægd, enn forsmánarans vegur gerer óhægd.

16. Forsiáll madur gerer alla hlute med skinseme, enn fáviss madur breider út heimskuna.

17. Ógudrækur sendebóde flytur óluku, enn trúr sendebóde er heilnæmur.

18. Hver hyrting eigi vill líða, hefir fátækt og skømm; enn sá sem hlyder giarnan áuítanenne, mun til heidurs koma.

19. Þegar þad kemur sem menn gyrnast þad gledur hiartad, enn sá sem illt varast er fávísum andstyggelegur.

20. Hver hann umgeingst med vitrum mønnum sá verdur vitur, enn hver hann er felage heimskra, hann mun óluku hreppa.

21. Olukkann offsæker synduga, enn rettlátum verdur godt endurgolldeð.

22. Góder menn munu taka arf ad barna-børnum, enn andæfe hins synduga sparast hinum rettláta.

23. Þar er mikel fædsla í plógførum þeirra fátæku, enn þeir ed rangt gera fordiarfast.

24. Hver hann sparar sinn vønd hann hatar sinn son; enn hver á hønum hefir ást, sá agar hann fliott.

25. Rettvís madur hann etur so hans sál sedst, enn ógudrækenna manna kvidur hefir alldrei nægiu.

## 14. Capitule.

1. Fyrer vitrar konur verdur húsed bygt, enn hin fávísa nidurbrytur þad med sínum verkum.

2. Hver hann óttast Drottinn, sá gengur á rettum veige; enn sá sem hann forachtar sá víkur af hans veige.

3. Heimsker tala, sem tyrannar, enn vitrer menn geyma sinn munn.

4. Hvar ad eru engenn yxn, þar er hreinn jatann; enn hvar uxenn er gagnsamur, þar er mikel inntekt.

5. Trúr vottur lygur eigi; enn einn lúgvottur ber einardlega framm lyge.

6. Hádgiarn madur leitar vitsku og finnur eigi; enn hyggnum mønnum er vitskann lett.

7. Gack þú frá heimskum, þvi þú lærer ecke af hønum.

8. Þad er vitska hyggens manns, ad hann achtar uppá sinn veg; enn þad er heimska fávísra, ad eigi er med þeim utan svik ein.

9. Heimsker hlæa ad syndenne; enn goder menn hafa þocknan á gódum.

10. Nær hiartad er hriggt, þá flodar engenn ytre glede.

11. Hús ógudlegra mun afmást; enn tialldbúd þeirra fromu mun blómgast.

12. Mørgum líkar einn vegur vel; enn med seinsta leider hann, hann til dauda.

13. Epter hlátur kemur hriggd, og harmur kemur epter føgnud.

14. Einum ónytum manne mun so ganga, sem hann gerer; enn godur madur mun yfer hønum vera.

15. Vernskur madur truer øllu, enn vitugur madur athugar sinn gang.

16. Vís madur óttast og fordast bid vonda; enn einn dáre hleypur diarflega þar ígegnum.

17. Óþolugur madur gerer dárlega; enn forhugsadur madur hatar þad.

18. Hiner bernsku erfa heimsk-

una, enn forsiálega ad høndla er spakra manna korona.

19. Bonder hlióta ad bengia sig fyrer godum, og ógudleger í dyrum þess rettláta.

20. Fátækann mann hata einnenn hans náungar; enn riker menn hafa marga vine.

21. Sá syndugе forackfar sinn náunga; enn sá er sæll sem aumum miskunar.

22. Þeir sem med vondum hreckum fara framm, verda blekter; enn þeir sem godt hugsa, ødlast tru og gædsku.

23. Þar er nóg sem menn ersida; enn hvar sem menn med ordum (einum) umgangast, þar er skortur.

24. Wísum manne eru hans audæfe ein korona; enn heimska fávísra blífur heimska.

25. Trúr vottur frelsar lífed; enn fals-vottur svíkur.

26. Hver hann óttast Drottinn, sá hefir øruggt víge, og børn hans verda og verndud.

27. Otte Drottins er brunnur líffsins, so ad menn fordest snørur daudans.

28. Hvar einn kongur hefir margt folk, þad er hans vegsemd; enn þar sem fátt fólk er, þad geter Herrann hræddann.

29. Hver þolenmódur er, sá er vitur; enn sá sem er óþolugur hann auglýser sína heimsku.

30. Eitt godgiarnt hiarta er líkamans líf; enn øfund er rotnan í beinunum.

31. Hver lítelmagnanum gérer óríeke, sá lastar skapara hans; enn sá sem miskunar fátækum, hann heldrar Gud.

32. Sá ógudlege stendst eigi í sinne ólucku; enn rettvís madur er líka í sínum dauda hughraustur.

33. J hyggens manns hiarta hvíler vitskann, og opinberast medal fávísra.

34. Rettlæte upphefur eina þiód; enn syndenn er folksins fordiørfun.

35. Skinsamur þiónn er kongenum þeckur; enn ódugglegum þion er hann óvinur.

## 15. Capitule.

1. Eitt miukt andsvar hepter reide, enn hardt ord uppvekur grimmd

2. Tunga vitra manna gerer lærdómenn kærann; enn munnur fávísra spyar einne saman heimskunne.

3. Augu Drottins siá um alla stade, bæde illa menn og góda.

4. Heilnæm tunga er lífsinstre, enn lygegiørn gerer hiartasorg.

5. Einn dáre lastar síns fø . rs typtan; enn sá sem umvøndunena medtekur, mun forsiáll verda.

6. J húse hins rettláta er gnægd audæfa; enn í inntektum hins ógudlega er fordiørfun.

7. Munnur vísra manna útdreifer gódum rádum; enn hiarta fávísra er eigi so.

8. Offur hins ógudlæna er Drottne andstygd; enn bæn hinna frómu er hønnm þægeleg.

9. Begur hins ógudlega er Drottne svívirding; enn hver rettlætenu epterfylger, sá verdur elskadur.

10. Þad er ill tuckt ad yfergefa veigenn, og sá sem hatar straffunena hlytur ad deya.

11. Helvíte og gløtunenn er fyrer Drottne, hvad miklu meir mannanna hiørtu.

12. Spottarenn elskar eigi þann sem hønn ávítar, og gengur eigi til þeirra hyggnu.

13. Gladt hiarta gerer gledelegt yferbragd; enn þegar hiartad er hriggt, þá bilar hughreystenn.

14. Hygged hiarta høndlar med

umþeinkingu, enn diarfer bárar fliórna heimſkulega.

15. Sá ſem hriggur er, heſir alldrei neinn godann dag, enn godt ged er daglegt ſæigæte.

16. Betra er líted med otta Drottins helldur enn mikell feſiodur ſem óróleike er í.

17. Betre er rettur af kále med kærleika, helldur enn alenn uxe med hatre.

18. Reidur madur vekur upp þrætur; enn þolennmódur nidurſetur kíf.

19. Vegur hins lata er fullur þyrna; enn vegur þeirra frómu er vellagdur.

20. Einn vitur ſonur gledur fødurenn; enn heimſkur madur er ſinne módur ſkømm.

21. Heimſkum manne er heimſkann føgnudur; enn ſkinſamur madur ſtadnæmeſt á rettum veige.

22. Pad áform verdur ad engu, ſem ei er med ráde; enn hvar ád eru marger rádgiafar, þar ſtirkeſt þad.

23. Pad er einum manne glede þá menn ſvara hønum rett; og eitt ord á ſínum tíma, er miøg liuft.

24. Vegur líſſins liggur upp epter, ad gera menn forſiála, ſo þeir fordeſt helvíte nidur under.

25. Drottinn mun dramblátra hús nidur brióta, enn ſtadføſt gera ekkiunnar landamerke.

26. Rádagerd hins arga er fyrer Drottne andſtyggeleg; enn hreinferduger menn tala trúlega.

27. Sá hinn ágiarne nidurbrytur ſitt eiged hús; enn ſá ſem hatar gáfur mun lifa.

28. Hiarta hins rettláta hugſar ſig um hveru ſvarande er; enn munnur hinna ógudræknu ſkámar af illu.

29. Drottinn er langt í burt frá þeim ógudlegu; enn bæn rettlátra heyrer hann.

30. Vinſámlegt tillit gledur hiartad; eitt godt rykte gerer beinenn feit.

31. Pad eyra, ſem líſſins umvandan heyrer, mun búa á medal hyggenna manna.

32. Hver ſem eigi vill láta ſer ſegia, hann gerer ſig ſiálfann til einſkis; ennhver hann hlyder ſtrøffunenne verdur hyggenn.

33. Otte Drottins er tucktan til viſſkunnar, og ádur enn ad madur kemur til heidurs, þá hlytur hann ad lída.

## 16. Capitule.

1. Madurenn áſetur ad ſønnu nockud í hiartanu; enn þad kemur af Drottne, ſem tungann ſkal tala.

2. Sérhverum þykia ſíner veiger hreiner; enn Drottinn alleina gerer hiartad viſt.

3. Bifala Drottne þínar gerder, þá munu þínar ætlaner frammgang hafa.

4. Drottinn gerer alla hlute fyrer ſiálfs ſíns ſaker, einnenn hinn ógudrækna til ills dags.

5. Drambſamt hiarta er Drottne andſtyggelegt, og þad mun eigi óhegndt vera, þó þeir ſeu aller í einu ſambande.

6. Fyrer godgyrne og trú fórlíkaſt misgerdenn; og fyrer otta Drottins fordeſt menn illt.

7. Pegar nockurs manns veiger líka Drottne, þá gerer hann einnen hans óvine til frids vid hann.

8. Betra er líted med rettu, enn mikel inntekt med røngu.

9. Hiarta mannſins áformar ſinn veg; enn Drottenn alleinaſta geſur, ad þad framm kvæmeſt.

10. Spádomur er í kongſins

munne, hans munnur fer eigi villt í dóme.

11. Rett vog og vigt er af Drottne, og øll pund í seckinum eru hans gerningar.

12. Fyrer kongenum rangt ad gera er svívirding, þviad med rettindum stadfestest hásæted.

13. Rett ad rádleggia líkar kongenum, og hver heillt rád leggur verdur elskadur.

14. Reide kongsins er sendebóde daudans; enn vitur madur mun bídka hann.

15. Nær kóngsins andlit er hyrlegt, þad er lífed, og hans nád er líka sem kvølldskúrenn.

16. Medtak þú vitskuna, þvi hún er gulle betre, og skinseme ad hafa er dyrmætara enn silfur.

17. Vegur þeirra fromu varast illt; og hver sinn veg vardveiter hann behelldur sínu líse.

18. Sá er ganga skal til grunns gerest ádur drambsamur, eitt dreissugt og dramblát sinne gengur undann fallenu.

19. Betra er ad vera lítellátlegs sinnes med hógværum, enn skipta herfange med drambsømum.

20. Hver ed forsiálega frammfylger nockru efne, sá sinnur hamingiu; og sæll er sá sem traust hefir á Drottne.

21. Einn skinsamur verdur prísadur fyrer einn vitrann mann; og liúfleg ræda kenner vel.

22. Vísdomur er einn lifande brunnur þeim sem hann hefir; enn øgun fávísra er heimska.

23. Eitt hygged hiarta talar viturlega, og kenner vel.

24. Rædur hins vingiarnlega eru hunangs-seimur, þær hugga sálernar, og endurnya beinenn.

25. Mørgum þeckest einn vegur vel, enn hans ed sídarsta liggur til dauda.

26. Margur kemur til størrar óluckn fyrer sinn eigenn munn.

27. Onytur madur grefur epter óluckn, og elldur brennur í hans munne.

28. Rángsnúeun madur vekur upp þrætur, og bakmálugur madur gerer høsdingia sundurlynda.

29. Poerudlegur madur lockar sinn náunga, og leider hann á egnann gódann veg.

30. Hver hann bender med augunum hugsar ecke godt; og hver hann teiknar med vørunum hann fullkomnar illt.

31. Gráar hærur eru heidursins korona, hverar ad finnast a rettlætisins veige.

32. Einn þolenmódur madur er betre enn sterkur madur, og hann sem Herra er síns sinnis, helldur enn sá ed borger ysirvinnur.

33. Hlutfollum verdur kastad í skaut, enn þau falla epter þvi sem Drottinn vill.

## 17. Capitule.

1. Betre er einn þurr bite, þar madur lætur ser med nægia, helldur enn fullt hús sláturs med þrætu.

2. Vitur þræll mun drottna yfer óþrifnum erfingium, og mun skipta erfdenne brædra á mille.

3. So sem elldurenn reyner silfred, og ofnenn gulled, so líka reyner Drottinn hiørtunn.

4. Illur madur hlyder illum munnum; og falskur madur hlyder giarnan skadsamlegum tungum.

5. Hver hann spottar fátækann, sá hæder þess hins sama skapara; og hver hann hlackar yfer hans óførum mun eigi órefssadur verda.

6. Korona hinnaølldrudu eru

barnabørnenn, og barnanna heidur er þeirra fedur.

7. Eigi hæfer heimſkum manne vel ad tala um háſa hlute, miklu midur einum høfdingia ad hann liuge giarnann.

8. Hver hann hefir ad gefa, honum er þad ſo ſem einn gimſteinn: hvert ſem hann ſnyſt, þá er hann hyggenn halldenn.

9. Hver hann hylur ſyndena, gerer vinſkap, enn ſá ſem lyſer ſøkenne gerer høfdingiana óſamþycka.

10. Stroffun ſkelfer meir hyggenn enn hundrad høgg heimſkann.

11. Beiſklundadur madur leitar ſkada ad gera, enn einn ógurlegur engell mun yfer hann koma.

12. Betra er ad mæta biarndyre, þvi ſem rænt er ſínum húnum, helldur enn heimſkum manne í ſinne heimſku.

13. Hver ed godt med illu launar, af þeſs húſe mun eigi illt linna.

14. Hver deilur uppbyriar, er líka ſem ſá ed rífur upp fyrer vatnenu dykis gardenn. Hættu af deilunne, fyrr enn þú verdur þar í vafdur.

15. Hver hann ſeger þann ógudlega hafa rett, og fyrerdæmer rettlátann, þeir eru báder fyrer Drottne ein ſvívirding.

16. Hvad ſkulu fávíſum peningar í hende, til ad kaupa vitſku, fyrſt hann er einn dáre?

17. Sá ſem ad vinur er, elſkar ávallt: og einn broder verdur í neydenne fundenn.

18. Sá er einn dáre, ſem uppá hondena lofar, og í borgan gengur fyrer ſinn náunga.

19. Hver hann elſkar deilur, hann elſkar ſynd: og ſá háfar gerer ſínar dyr, ſtundar epter ólucku.

20. Raugſnúed hiarta finnur ecke godt, og ſá hann hefir rangſnúna tungu mun falla í óhamingu.

21. Hver hann fæder einn dára, ſá hefir ſorg: og fader dárlegs manns hefir enga glede.

22. Gladvært hiarta gerer líſed lyſtelegt, enn hriggt ged uppþurkar beinenn.

23. Ogudlegur madur þyggur giarnann heimuglegar gáfur, til ad beygia veg rettarins.

24. Forſiáll madur hefir hyggelegt vidmót: enn heimſkur kaſtar uugunum hingad og þangad.

25. Fávís ſonur er fødurſins harmur, og hriggd ſinnar módur, ſem hann fædt hefir.

26. Þad er ei godt ad plægia þann rettláta, og ad ſlá høfdingia þann ſem rett ſtiornar.

27. Skinſamur madur ſtiller ſína ræda, og einn vitugur madur er dyrmæt ſál.

28. Ef fávís madur þegde, þá være hann vitur halldeun, og ſkinſamur ef hann ſínum munne hellde.

## 18. Capitule

1. Hver hann fráſkilur ſig, hann leitar þeſs ſem hann lyſter, og ſetur ſig imóte øllu þvi ſem godt er.

2. Einn dáre hefir enga lyſt á ſkinſeme, helldur á þvi ſem er í hans hiarta.

3. Hvert ſem ſá ógudlege kemur, þar kemur og forøcktun, og ſmán med brixle.

4. Ord í eins munne er ſo ſem diúpt vatn, og vitſkubrunnurenn er einn fullur ſtraumur.

5. Þad er ei godt ad acta perſonu hins ógudræckna, til ad beygia þann rettláta í dóme.

6. Varer dárans færa þráttun, og hans munnur ſæker epter høggum.

7. Munnur hins fávíſa gerer

skálfum ser skada, og hans varer fanga hans eigenn sál.

8. Bakmálugs manns ord eru sløg, og ganga einum ígegnum hiartad.

9. Sá sem latur er í sinne vinnu, hann er broder þess, sem fyrerfer sínu.

10. Nafn Drottins er einn sterkur kastale, þangad hleypur hinn rettláte, og verdur verndadur.

11. Ríkdomur audugs manns er hønum sterkur stadur, og so sem hár múrveggur í kringum hann.

12. Nær nockur skal í grunn falla þá verdur hans hiarta ádur dramblátt, og fyrr enn madur til heidurs kome, þá hlytur hann ádur ad lída.

13. Hver fyrr gefur andsvar enn hann heyrer, hønum er þad fávitska og skømm.

14. Hver hann hefir gladt hiarta, sá kann ser í sínum mótgange vid ad hallda: enn þegar hugurenn er fallenn, hver kann þad ad bera?

15. Eitt skinsamlegt hiarta kann hyggelega ser ad haga, og vitrer menn heyra giarnan, ad menn skinsamlega høndla.

16. Gáfa mannsins gefur hønum rúm, og kemur hønum fyrer stórherrana.

17. Rettlátur madur er vís fyrerframm uppá sína søk: kome hans náunge þá finnur hann hann á þann hátt.

18. Hlutfall setur nidur deilur, og gerer adskilnad á millum þeirra megtugu.

19. Sá broder sem styggdur er er fasthelldare en fastur stadur, og þráttan helldur fastara enn steingur á høllunne.

20. Einum manne verdur launad epter þvi sem hans munnur hefir talad, og verdur saddur af ávexte vara sinna.

21. Daude og líf stár í tungunnar valldе, hver hana elskar mun af hennar ávøxtum neyta.

22. Hver hann finnur eina eigenkonu, sá finnur gódann hlut, og medtekur velþocknan af Drottne.

23. Fátækur madur talar bidiande: ríkur mádur ansar rembelega.

24. Trúr vinur hefir enn mann elskara, og stendur fastara hiá hønum helldur enn einn broder.

## 19. Capitule.

1. Betre er sá fátækur sem frammgengur í sínum fromleika, helldur enn rangsnúenn madur med sínum vørum, sem þó er fávís.

2. Þar menn umganga eigi med skinsemd ser eigi vel framm, og hver med fótunum er fliotur gerer skada.

3. Fávitska mannsins umsnyr hans veige, so ad hans hiarta æder ímóte Drottne.

4. Audæfe gera marga vine, enn fátækur madur verdur af sínum vinum forláteun.

5. Einn lúgvottur blífur eigi óhegndur, og sá sem framgiarnlega framm ber lyge mun eigi undan hlaupa.

6. Margur tekur vara uppá høfdingians persónu, og aller eru viner þess er gáfur gefur.

7. Fátækann mann hata aller hans brædur: já! hann fyrrest og einnenn hans viner, og sá sig forlætur uppá ord hefir ecke.

8. Sá sem skinsamur er hefir kært sitt líf, og forsiáll madur finnur gódt.

9. Einn falsvottur blífur eigi óstraffadur, og sá sem diarflega talar lygd mun fyrerfarast.

10. Fávísum manne hæfer illa ad hafa góda daga, miklu midur

einum Þræl ad drottna yfer høfdingium.

11. Sá sem er Þolenmódur hann er hyggenn madur, og Þad er hønum heidur ad hann lætst ódygdena eigi heyra.

12. Kongsins óvinátta er sem grenian ungs Leons, enn hans nád er sem døgg á grase.

13. Fávís sonur er sitts føddurs hiartasorg, og kífenn kona einn sífelldur leke.

14. Hús og audæfe erfast epter forelldrana: enn skinsøm kona kemur af Drottne.

15. Lete gerer svefn, og idiulaus sál mun hungur Þola.

16. Hver bodorded vardveiter hann vardveiter sitt líf, enn sá sem sinn veg forachtar mun deya.

17. Hver fátækum miskunar, sá lánar Drottne, hann mun hønum Þad gódu endurgiellda.

18. Tyfta Þú son Þinn á medan vondt er fyrer høndum: enn lát eigi sál Þína verda tilhrærda ad drepa hann.

19. Því ad mikell grimmleiki gerer skada, Þar fyrer gef hann lausann, so kann Þú hann framar ad aga.

20. Hlyd Þú rádleggingunne, og medtak ávítanena, so ad sídar meir verder Þú hyggenn.

21. Þar eru margar rádagerder í eins manns hiarta, enn rád Drottins stendur støduqt.

22. Einn madur hefir lyst af sínum velgerdum: og betre er einn fátækur enn einn lúgare.

23. Otte Drottins stødar til lífsins, og mun saddur verda, so ecke mun hann illt heim sækia.

24. Latur madur hylur sína hønd í pottinum, og ber hann eigi aptur ad munnenum.

25. Ef madur slær hinn hádgiarna Þá vitkast hinn bernske: enn ef madur straffar skinsamann mann Þá verdur hann hyggenn.

26. Hver føddurenn eydeleggur, og burt rekur moderena, hann er eitt skammarlegt og bølvad barn.

27. Hætt Þú sonur minn! ad hlyda Þeim aga sem fráleider skinsamlegum lærdóme.

28. Einn órádvandur vottur spottar rettenn, og ógudlegra manna munnur gleypar órettinn.

29. Hádgiørnum mønnum eru befader reidubúnar, og høgg á hryggenn heimskra manna.

## 20. Capitule.

1. Vín gerer lausláta menn, og sterkur dryckur galda, hver Þar hefir lyst til verdur alldrei vitur.

2. Skelfing konungsins er so sem grenian ungs Leons, sá hann stygger sá syndgar móte sínu lífe.

3. Þad er mannenum heidur ad vera í frádeilum: enn Þeir ed deila giarnan Þad eru alltsaman dárar.

4. Fyrer kulda saker vill latur madur eigi eria, Þar fyrer hlytur hann um kornskurdar-tímann ad bidia og eigi fá.

5. Eitt rád í hiarta manns er svo sem diup vøtn: enn einn vitur madur kann ad siá hvad hann meinar.

6. Mørgum mønnum er hrósad, ad Þeir seu goder: enn hver vill fynna Þann einn sem er rettelega gódur.

7. Rettlátur madur, sá framm gengur í sinne gódmennsku, Þess børnum mun vel vegna epter hann.

8. Kongur sá ed situr á stolnum, til ad dæma, tvístrar øllu illu med sínum augum.

9. Hver má segia: hreinn em eg í mínu hiarta? og klár af mínum syndum?

10. Marghåttud vog og mæling

er hverttveggia fyrer Gude andstyggelegt.

11. Eitt ungmenni þeckest af sínum athøfnum, hvert þad vill vera godt og hreinskiled.

12. Heyranda eyra, og siáande auga, þad gerer Drottinn hverttveggia.

13. Elska eigi svefnenn, so þú verder eigi fátækur. Hallt opnum þínum augum, þá muntu brauds gnægd hafa.

14. Vondt, vondt, segia menn: þá þeir hafa þad, enn þá þad er í burt, bera menn þvi prís.

15. Þar er gull og margar perlur, enn vitur munnur er kostulegt klenodium.

16. Tak þú klæde þess sem fyrer annann í borgun gengur, og pantset þad fyrer saker hins ókennda.

17. Stoled braud smackar hverum monne vel, enn þar epter fyllest hans munnur upp med sandsteinum.

18. Aform standa nær þau byrjast med ráde: og orløg skulu menn fremia med skinsemd.

19. Samlaga þig eigi vid þann mann sem leyndarmál openberar, og vid bakmáluga og falsmunna.

20. Hver hann bølvar sínum fødur og sínne módur, þess liós mun útsløckna í midium myrkrum.

21. Sú erfd sem menn flyta ser miøg epter í fyrstu mun umsíder eigi blessud verda.

22. Seg eigi: eg skal launa aptur illt, bíd Drottins, hann mun hiálpa þer.

23. Marghättud vigt er Drottni svívirdeleg, og raung vog er eigi góð.

24. Hvers eins manns gangur kemur af Drottne, hver er sá madur sem skilur sinn veg?

25. Þad er mannenum snara ad lasta þad heilaga, og þar eptera leita til áheita.

26. Einn vís kongur tvístrar þeim ógudlegu, og færer hiól yfer þá.

27. Skridliós Drottins er mannanna ande, þad gengur í gegnum allt hiartad.

28. Ad vera gódur og sannordur þad bívarar kongenn, og hans hásæte stirkest fyrer godgyrnena.

29. Ungdomsins stirkur er hans heidur, og þau gráu hárenn eru pryde þeirra gomlu.

30. Menn hlióta ad hamla þeim illu med strøngu stroffe, og med alvarlegum høggum sem madur finne til.

## 21. Capitule.

1. Kongsins hiarta er í hende Drottins, so sem vatnslækerner, og hann hneiger þad hvert ed hann vill.

2. Hverium manne virdest rettur sinn vegur, enn Drottinn alleina gerer efalaus hiortunn.

3. Vel og rett ad gera er Drottne þægelegra enn offur.

4. Drambsøm augu og dreissugt finne, og Skridliós ógudrækenna, er synd.

5. Fyrerætlan hins idna orkar yferfliotanlegrar nægdar, enn sá þoler þarfnau, sem ofhastur er.

6. Hver hann safnar ser fesiod med lygum, hann mun grípa í tomt, og falla á medal þeirra sem leita epter hans dauda.

7. Ránskapur ógudrækenna mun skelfa þá, þviad þeir villdu eigi gera hvad rett var.

8. Hver einn annann veg gengur sá er hreckvís, enn sá sem framm gengur í sínne bifalningu, þess verk eru rett.

9. Betra er ad búa í hyrningu

á húsþekiunne enn ad búa tilsamans í einu húse hiá kíssamre konu.

10. Ønd hins ógudlega æsker ills, og ann sínum náunga einskis.

11. Nær spottarenn verdur straffadur þá hygguast þeir enu bernsku. Og nær menn undervísa hyggnum manne, þá verdur hann skinsamur.

12. Rettlátur madur hagar ser viturlega vid hús hins ógudlega, enn ógudleger menn hugsa ei utan ad gera skada.

13. Hver sín eyru aptur byrgèr fyrer kalle hins fátæka, hann same mun og kalla og eigi heyrdur verda.

14. Heimugleg gáfa hepter reide, og giøf í skaut løgd ákafa grimmd.

15. Pad er søgnudur rettlátum manne ad gera hvad rett er, enn hrædsla illgerda mønnum.

16. Sá madur sem villest af vitskunner veige mun blífa í daudra manna søfnude.

17. Hver hann giarnan lifer í vellystingum, hann mun skorta: og hver hann elskar vín og vidsmiør verdur ei ríkur.

18. Ogudleger menn hlióta fyrer rettláta gefner ad verda, og forsmánarar fyrer þá gódu.

19. Betra er ad búa á eydelande enn hiá deilugiarnre og reidenne konu.

20. Í húse hyggens manns er elskulegur fesiódur, og vidsmiør; enn heimskur madur eyder þvi.

21. Hver miskunseme og gódgyrne eptersylger, hann finnur líf, ed, miskun, og heidur.

22. Vitur madur vinnur borg þeirra sterku, og steyper þeirra magt fyrer þeirra uggleyse.

23. Hver hann vardveiter sinn munn og tungu, hann vardveiter sál sína fyrer angist.

24. Sá sem ad er dreissugur og bramblátur, kallost einn lawsinge, sá er í reidenne syner metnad.

25. Latur madur deyr yfer sinne osk, þviad hans hendur villdu ecke gera.

26. Daglega óskar hann, enn hinn rettláte gefur, og neytar eigi.

27. Fórner ógudlegra manna eru svívirding, þviad þær eru í syndunum offradar.

28. Einn liúgvottur fyrerferst: enn sá sem hlyder, hann láta menn og alltid aptur tala.

29. Hinn ógudlege þreynger ser í gegnum med høsdenu: enn sá sem gódur er, hans vegur stendur stødugur.

30. Par hiálpar engenn vitska, engenn skinseme, ecke rád, imóte Drottne.

31. Hestar verda búner til bardagans, enn sigurenn kemur af Drottne.

## 22. Capitule.

1. Rikte er kostulegra enn mikel audæfe, og hylle er betre enn silfur og gull.

2. Ríker og fátæker hliota ad vera hver annara á medal, Drottinn hefir þá alla saman gert.

3. Forsiáll madur ser óluckuna, og leyner ser. Enn hiner bernsku ana framm, og sá skada.

4. Hvar menn þóla í ótta Drottins, þar eru audæfe, heidur og líf.

5. Pyrnar og snørur eru á veige hins rángsnúna: enn hver sig tekur þar langt frá, sá vardveiter sitt líf.

6. So sem menn venia ungmenned, so leggur hann þad eigi af, þá hann elldest.

7. Ríkur drottnar yfer fátækum og sá sem þyggur lán er þræll þess sem lánade.

8. Hver ránglæte nidur sáer, sá

uppſker mædu, og fyrer vende ſinnar illſku mun hann fyrerfaraſt.

9. Godt auga verdur bleſſad, Þviad Þad gefur fátækum af ſinu braude.

10. Utſkúfa hádgiørnum manne, Þá fer kifed burt, þá hætta deilur og forminkaner.

11. Hver hann hefir trútt hiarta, og liufliga rædu, Þeſs vinur er kongurenn.

12. Augu Drotlins geyma godt rád: enn forſmáparans ordum umſnyr hann.

13. Sá hinn lati ſeiger: Leon er Þar ute; kann ſke, eg verde drepenn á ſtrætenu.

14. Hórunnar munnur er ein diúp grøf, hverium Drottinn er reidur ſá fellur Þar í.

15. Heimſkann er folgenn í ungmenneſins hiarta: enn hyrtingarvøndurenn rekur hana langt burt frá Þvi.

16. Hver ed gerer rangt fátækum, til Þeſs, ad auka ſín audæfe, hann mun og einum rikum manne gefa, og Þola ſkort.

17. Hneig Þín eyru, og heyr Þú ord vitra manna, og tak Þer til hiarta mína kenning.

18. Þviad Þad mun gera Þer hægd ef Þú geymer hana hiá Þer, og Þetta mun tilſamans fyrer Þinn mun vel luckaſt.

19. Ad Þitt trauſt ſe uppá Drottinn, hlyt eg daglega um ſlíkt Þig ad áminna Þer til góda.

20. Hefi eg Þer eigi margfalldlega fyrerſkrifad, med rádleggingu og kenningu?

21. So ad eg ſyne Þer ſannann grundvøll ſannleikſins, ſo Þú kunner Þeim rett ad andſvara ſem Þig ſenda.

22. Rændu eigi fátækann, Þó ad hann ſe fátækur, og niduÞrick Þú eigi Þann hinn veſæla í borgarhlidenu.

23. Þviad Drottinn mun kondla um Þeirra ſøk, og fóttroda Þeirra fóttredendur.

24. Samlaga Þig eigi vid reidann mann, og hallt eigi med grimmum manne.

25. Ellegar má ſke, Þú lærer hans vegu, og fáer hneixlun ſálar Þinnar.

26. Ver Þú eigi hiá Þeim ſem binda hendur ſínar, og í borgun ganga fyrer ſkullder.

27. Þviad ef Þú hefir Þad eigi til ad bitala, Þá munu menn og Þinn bed undan Þer í burt taka.

28. Fær Þú eigi aptur á bak Þau fyrre landamerke, ſem fedur Þíner hafa gert.

29. Siáer Þú nockurn mann áſtundunarſamann í ſínum gerdum, hann mun ſtanda fyrer kongenum, og hann mun eigi ſtanda fyrer Þeim bedla.

## 23. Capitule.

1. Nær Þú ſitur og bordar med einum Herra, ſo áthuga Þú, hvern Þú ſyrer Þer hefir.

2. Og ſet kníf á barka Þer, viler Þú líſe hallda.

3. Oſka Þer eigi hans fædu, Þviad Þad er falſkt braud.

4. Mæd Þig eigi ad verda ríkur, og lát af Þínum uppáfundningum.

5. Lát augu Þín ei Þangad ſliúga ſem Þú kannt eigi ad fá, Þviad Þad gerer ſer vænge, ſo ſem ein ørn, og ſlygur upp ad himne.

6. Neyttu eigi braudſ hiá øfundſiúkum manne, og æſk Þú Þer eigi hans fædu.

7. Þvi, líka ſem ein forynia er hann hid innra, hann ſeger: et og dreck, enn hiarta hans er Þó eigi til Þín.

8. Þína bita, sem þú hefir eted, hlýtur þú upp ad gefa, og þú mátt tapa þínum vinsamlegum ordum.

9. Tala þú eigi fyrer eyrum hins heimska, þviad hann fyrerlýtur hyggende þinnar rædu.

10. Færdu eigi aptur á bak þau fyrre landamerke, og gack ei uppá akra fødurlausra.

11. Þviad volldugur er þeirra frelsare, hann mun útretta þeirra søk þer imóte.

12. Gef þitt hiarta til tyftunar, og eyru þín til skinsemddr rædu.

13. Lát eigi af ad hyrta ungmenned, þvi ef þú slær þad med vendenum þarf þad eigi dreped ad verda.

14. Þú sleinger þad med vendenum, enn þú frelsar ønd þess frá helvíte.

15. Sonur minn! ef þú ert hyggenn, þá gledst og mitt hiarta.

16. Og mín nyru fagna, þegar varer þínar tala, hvad rett er.

17. Þitt hiarta fylge eigi syndurunum: vertu helldur daglega í Drottins otta.

18. Þviad þad mun þer sídar meir godt vera, og von þín mun eigi bregdast.

19. Heyr þú, sonur minn! og vertu hyggenn, og stiorna hiarta þínu á veigenn.

20. Ver þú ei med ølsvelgiurum og grádugum.

21. Þviad ølsvelgiarar og grádugir útarmast, og svefnugur madur hlýtur ad bera tøtrug føt.

22. Hlyd þú fødur þínum sem þig hefir geted, og forsmá eigi módur þína, þegar hún elldist.

23. Kaup þú sannindi, og sel eigi, vitsku, tuckt, og skilning.

24. Fader hins rettlata fagnar, og sá sem vitrann son hefir geted gledst þar yfer.

25. Láttu fødur þinn og módur fagna og gladvær vera, sem þig geted hafa.

26. Gef mer, sonur minn! hiarta þitt, og lát þínum augum vel þocknast mína vegu.

27. Þvi ein skækia er ein diúp grøf, og ein hórkona þraungur pyttur.

28. Og hún umsitur so sem einn refare, og þeim enu diørfu á medal mannanna safnar hún ad ser.

29. Hvar er vei? hvar er harmur? hvar eru deilur? hvar eru akærur? hvar eru áverkar fyrer utan tilverknad? hvar eru raud augu?

30. Sem ad er, þar sem madur liggur vid vín, og kemur út ad dreckа þad sem á er skeinkt.

31. Alyttu eigi víned, ad þad er so raudt, og er so fagurt í glasinu, þad rennur miukl ega nidur.

32. Enn epter á bítur þad sem høggormur, og stíngur sem ein nadra.

33. Þá munu augu þín lyta epter annarlegum konum, og hiarta þitt tala ranghverfa hlute.

34. Og (þú) munt vera sem nockur sá, er sefur í midiu hafe, og líka sem einn uppá mastrenu sefur.

35. Þeir slá mig, enn mer er þad þó eigi sárt: þeir beria mig, enn eg kenne eigi til þess. Nær mun eg vakna, svo ad eg þetta optar freme?

## 24. Capitule.

1. Epterfylg eigi vondum mønnum, og óska eigi med þeim ad vera.

2. Þviad hiarta þeirra stundar epter skada, og varer þeirra eggia til óluku.

3. Med vitsku upbyggest húsed, og vid magt helldst fyrer skinseme.

4. Af skickanlegre heimelis forstødu uppfyllast geymsluhúsenn

med allskyns kostulegann og dæelegann ríkdom.

5. Vitur madur er sterkur, og forstandugur madur er megtugur af krapte.

6. Þvíad med ráde hlytur bardaganum frammfylgt ad verda, og hvar ed marger rádgiafar eru, þar er sigur.

7. Fávísum manne er vitskann of há, hann þorer ei sínum munne í borgarhlidenu upp ad luka.

8. Hver ed siálfum ser skada gerer, sá má med rettu kallast høfudskalkur.

9. Þankar hins heimska eru synd, og hadgiarn madur er fyrer mønnum svívirdelegur.

10. Sá er eigi sterkur, sem eigi er stadfastur í neydenne.

11. Frelsa þá sem menn vilia deyda, og haf þig eigi í burt frá þeim, sem menn vilia af lífe taka.

12 Ef þú seger: siá! ver høfum þar eigi skin á, meinar þú eigi, ad sá, sem rannsakar hiørtun, merker þad? og sá sem gefur gætur ad sálunne, þecker þad, og gialdt manneнum epter sínum verkum?

13. Neyttu hunangsins minn sonur, þvíad þad er godt, og hunangsseimur er sætur þínum hálse.

14. So og lær þú visku fyrer þína sál, nær þú finnur hana, so mun þer vel vegna sídann, og von þín mun eigi ad engu verda.

15. Umsit ei so sem ógudlegur madur hús hins rettferduga, og spill ei hans hvíld.

16. Því siøsinnum sellur rettlátur, og rís upp aptur, enn ógudrækner menn nidursøcka í óluckuna.

17. Fagna eigi yfer falle óvinar þíns, og lát þitt hiarta eigi hlacka yfer hans óførum.

18. Drottinn kann ad siá þad, og líka þad illa, og víkia reide sinne frá hønum.

19. Reidst eigi vegna vondra manna, og øfunda eigi þann ógudlega.

20. Því sá vonde hefir eigi uppá neitt ad vona, og skridlios ógudlegra mun sløckna.

21. Sonur minn! óttast þú Gud og kongenn, og samlaga þig eigi vid upphlaupssama.

22. Þvíad þeirra glatan mun voveiflega til standa, og hver veit, nær kemur beggia ólucka.

23. Þad kemur og af þeim vísu, ad manngreinarálit í dome er eigi gott.

24. Hver sem seger til hins ógudlega: þú ert rettvís, þeim bølvar fólked, og almugenn hatar hann.

25. Enn þeir sem straffa hann, þeir þocknast vel, og ríkugleg blessan kemur yfer þá.

26. Rettvíslegt andsvar er so sem kærleiks kossur.

27. Frammkvæm í fyrstu þar uti útvegu þína, og eria þinn akur, þar nærst uppbyg þú þitt hús.

28. Ver þú eigi ad þarflausu vitne imóte náunga þínum, og svík eigi med þínum munne.

29. Seg þú eigi: líka so sem vid mig er gert, vil eg aptur gera, og serhverum endurgiallda sín verk.

30. Eg geck hiá akre hins lata, og framm hiá víngarde hins fávísa,

31. Og siá! ad þar var fullt med þistla, og stód fullt med þyrna, og murenn var nidur fallenn,

32. Þegar eg þad sá, lagde eg þad á hiartad, eg athugade og lærde þar af.

33. Þú villt enn sofa stundar korn, og dotta líted, og samanleggia litla stund hendur þínar, ad þú hvíler þig?

34. Enn þinn armódur mun ad þer koma sem einn vegfarande, og þin fátækt sem einn herklæddur madur.

## 25. Capitule.

1. Þetta eru og ordskvider Salomonis, sem menn Ezechias gydinga kongs hafa þar vid auked.

2. Þad er Gude dyrd ad hylia eina søk, enn kongenum er þad heidur ad rannsaka søkena.

3. Himenenn er hár, og jørdenn er diúp, enn konganna hiørtu eru órannsákanleg.

4. Take menn skumed af silfrenu, þá verdur skært ker þar af.

5. Take menn ógudlega breytne frá kongenum, so verdur hans hásæte med rettlæte stadfest.

6. Ver þú eigi skrautsamur hiá kongenum, og gack eigi í reit þeirra stóru.

7. Þviad betra er þer, ad sagt se til þín; gack upp hingad, helldur enn þú verder nidradur fyrer høfdingiunum, so ad þín augu hlióte þad ad siá.

8. Ver þú eigi frammbleypenn til ad deila, þvi hvad villtu gera til þá epter á, þegar þú hefir skammad náunga þinn?

9. Ger út þína søk vid þinn náunga, og opennbera eigi annars leyndarmál.

10. So ad sá tale eigi illa til þín, er þad heyrer, og alldrei linne þitt illt rickte.

11. Eitt ord á sínum tíma talad, er sem gullegt eple í silfur skál.

12. Hver einn hyggenn mann ávítar, þann sem hønum hlyder, þad er líka sem gullig ennisspáung, og gyllene hálsband.

13. Líka sem kulde snióssins um haustyrkiu tímann, so er og trúr sendebode þeim sem hann hefir sendt, og hann nærer sál síns Herra.

14. Hver mikid talar og ender eigi, hann er so sem sky og vindur regnlaus.

15. Fyrer þolenmæde verdur einn Herra forlíktur, og vinsamleg tunga brytur hardúd.

16. Finnur þú hunáng, so et þína nægiu, so þú offylleſt eigi, og spyer þvi upp.

17. Vík þínum fæte frá húse náunga þíns, ellegar má vel ske, þú verder honum hvimleidur, og gremeſt hann vid þig.

18. Hver hann talar liúgvitne mót náunga sínum, sá er eitt spiot, sverd og hvøss píla.

19. Von forsmánarans í neydarinnar tíma er so sem fúenn tønn, og skridnande fótur.

20. Hver einu vondu hiarta kvedur kvæde, þad er líka sem sundurrifed fat á vetre, og edik uppá salltpetur.

21. Ef óvin þinn hungrar, fæd hann med braude: þyrste hann, gef hønum vatn ad drecka.

22. Þviad þú munt safna elldsglædur yfer høfud hønum, og Drottinn mun endurgiallda þer þad.

23. Nordan-vindur burt rekur regn, og sorgleg ásiána leynelegar tungur.

24. Betra er í einnre krá, uppá húsþekium, ad sitia, helldur enn hiá kífenne konu tilsamans ad vera í einu húse.

25. Godt ricke af fiarlægu lande er sem kallt vatn þyrstre sálu.

26. Rettlátur madur, sem fellur fyrer ranglátum, er so sem saurgadur vatnsbrunnur, og fordiørfud uppspretta.

27. Hver ofmiked hunáng etur þad er ei godt; og hver þunga hlute

rannsakar hønum verdur þad óf þungt.

28. Sá madur sem ei kann ad halda sínum anda, er líka sem ein openn borg án múrveggia.

## 26. Capitule.

1. Líka sem sniór á sumre, og regn á kornskurdar tíma, svo hlyder eigi heimskum manne heidur.

2. So sem fuglenn fer sinn veg, og svalann flygur, so rámar eigi ófsorþent bølvan.

3. Hestenum hæfer svipann, og asnanum beisled, og heimskum manne vøndur á baked.

4. Svara þú eigi heimskum manne epter heimsku sinne, so þú verder hønum eigi líkur.

5. Enn svara heimskum epter sinne heimsku, so hann láte ser ei þykia ad hann se hyggenn.

6. Hver hann útvegar sitt erende fyrer einn heimskann sendebóda er líka sem fothrumur madur og líd̄ur skada.

7. Líka sem kryplingenum dansferdenn, so hæfer þeim sem fávitur er um vísdom ad tala.

8. Hver ed heimskum manne heidur veiter, þad er líka sem þá ed nockur kastar steine uppá gálgaklettenn.

9. Eitt spakmæle í munne heimskum manne, er so sem þá þyrnis kvistur stingst í druckens manns hønd.

10. Godur meistare gerer einn hlut rett, enn hver ed kauper verk ad einum fákunnugum, fyrer hønum fordiarfast þad.

11. Svo sem hundurenn etur aptur sína spyu svo er heimskur madur sá sem fremur aptur sína heimsku.

12. Þegar þú ser þann nockurn sem hyggenn þykest, þá er meire von á heimskum helldur enn á hønum.

13. Sá hinn late seger: þar er eitt ungt Leon á veigenum, og Leon á brautunum.

14. Einn letinge vellter ser í sænginne, so sem hurd á hiørum.

15. Latur madur hylur høndina í pottenum, og þad veiter hønum þungt ad hann bere hana ad munnenum.

16. Einn letinge þykest hyggnare enn siø adrer, þeir sem læra góda sidu.

17. Hver hann fer til og blandar ser vid annarlegar þrætur hann er líkur þeim sem hundenn dregur á eyrunum.

18. Líka sem einn galenn madur, sem skytur med skotum og pílum, og deyder,

19. So gerer falskur madur vid sinn náunga, og seger sídan: eg gerde ad gamne mínu.

20. Þegar videnn þrytur þá slocknar elldurenn, og þegar burt er hinn bakmáluge þá hætta deilurnar.

21. Líka sem kolenn glódena, og vidurenn elldenn, so kveiker þrætusamur upp deilur.

22. Bakmálugs manns ord eru líka sem høgg, og þau ganga ígegnum hiartad.

23. Eitradur munnur, og illt hiarta, er so sem pottbrot huled med silfurfargan.

24. Ovinur verdur af sínum ordum kunnur, þott hann se í hiartanu falskur.

25. Þegar hann gerer rødd sína vingiarnlega, so trú hønum eigi, þviad siø svívirdingar eru í hans hiarta.

26. Hver hatre leyner til ad gera skada, þess illska mun verda opennber søfnudenum.

27. Sá, sem gerer grøfena, fellur þar í og sá sem steinenum velter, á þann mun hann koma.

28. Følsk tunga hatar þann sem hann ávítar, og hræsnes-munnur kemur fordiørfun af stad.

## 27. Capitule.

1. Hrósa þer ei af þeim deige sem á morgun kemur, þviad þú veitst ei hvad enn í dag má ske.

2. Láttu annann lofa þig, enn eigi þinn munn, einn framande, enn eigi þínar eigenn varer.

3. Grioted er þungt, og sandurenn er byrde, enn fávíss manns reide er þyngre enn þad hvertveggia.

4. Reidenn er ákaflegur hlutur, og grimmdenn æseleg, og hver kann fyrer støndenne ad standast?

5. Betre er openber hyrting enn leyneleg ást.

6. Høgg elskarans vilia einum godt, enn kossur hatarans er idugslegur.

7. Sødd ønd fottredur einnenn hunángsseim, enn hungradre ønd smackast allt beiskt sætt.

8. Líka sem sá fugl er sem víkur frá sínu hreidre, so er sá, sem víkur frá sínum stad.

9. Hiartad gledst af salve og reykelse; enn einn vinur er ástudlegur fyrer ráds saker sálarennar.

10. Yfergef eigi þinn vin og þíns fødurs vin, og gack eigi í þíns brodurs hús þegar þer gengur illa. Þviad einn nágranne, sá í nánd er, hann er betre enn broder, sá í fiarlægd er.

11. Ver þú hyggenn sonur minn! þá gledst hiarta mitt, so vil eg gefa svar þeim sem mig smána.

12. Einn frammsynn madur ser óluckuna fyrer, og leyner ser, enn þeir sem fávíser eru hallda áframm, og lida skada.

13. Tak þú þess klæde sem fyrer annann gengur í borgun, og pantset þad fyrer saker hins framanda.

14. Hver hann blessar med hárre røddu náunga sínum, og árla rís, þad verdur hønum fyrer eina bølvan reiknad.

15. Kífenn kona, og idugleger dropar, þegar miked regn er, má vel hvert ødru samlíkiast.

16. Hver hann helldur henne sá helldur vindenum, og vill grípa um óleum med hendenne.

17. Einn knífur hvetur annann, og einn madur annann.

18. Hver sitt fíkiutre geymer hann neyter ávaxtar þar af; og hver hann vaktar sinn Herra, hann fær æru.

19. Líka sem skuggenn í vatnenu er á móte andlitenu, so er hiartad mannsins á móte ødrum.

20. Helvíte og gløtun fyllast alldrei, og mannanna augu eru og so ósedianleg.

21. Madurenn verdur reyndur fyrer þess munn sem hann lofar, líka sem silfur í deiglu, og gull í ofne.

22. Þó þú ísundur steyter fávísann mann í mortele med mylnara, so sem grion, mun þó ei frá hønum hverfa hans heimska.

23. Gef þú gaum ad þínum saudum, og haf umhyggiu fyrer hiørdu þinne.

24. Þviad audæfe vara eigi æfinlega, og koronan blífur eigi æ og samnann.

25. Heyed er uppvaxed, og grased er fyrer hende, og jurternar safnast á fiøllunum.

26. Lømbenn klæda þig, og kidenn gefa þer akurpeninga.

27. Þú hefir nóga geitamiólk

til fœdslu þins heimelis, og til vidurlífis þínum ambáttum.

## 28. Capitule.

1. Ogudlegur madúr flyr, og engenn ellter hann: enn rettlátur madur er hughraustur sem eitt ungt Leon.

2. Fyrer synda saker landsins verda mørg umskipte høfdingstettanna. Enn saker þeirra manna, sem ad eru vitrer, og skinsamer, þá eru þeir leinge.

3 Einn fátœkur madur, sá ed gerer skada vesølum, er líka sem áskafa regn, þad ávextenn ónyter.

4. Þeir sem løgmáled forláta losa hinn ógudlega: enn þeir sem þad hallda eru mótþycker vid þá.

5. Vonder menn athuga eigi rettenn: enn þeir sem leita Drottins taka allt til vara.

6. Fátœkur madur gangande framm í sínum einfalldleik er betre enn ríkur madur, sá ed á rangum veige gengur.

7. Hver hann vardveiter løgmáled, þad er eitt hyggeð barn: enn hann sem fœder einn svelgiara skammar sinn fødur.

8. Hver hann eykur sín audœfe med okre, og ásetninge, sá samandregur þau til fátœkra manna nytsemdar.

9. Hver eyra sitt fráhverst gerer til ad heyra løgmáled, þess bæn er ein andstygd.

10. Hver hann afvega leider þá gódu menn, á vondann veg, sá mun detta í sína grøf, enn þeir frómu munu gotsed erfa.

11. Einn ríkur madur þykist hyggenn, enn fátœkur madur skinsamur formerker hann.

12. Nær ed rettláter menn hafa yfervalld, fer hardla vel framm, enn þegar ógudleger upp koma, þá umsnyst þad á medal folksins.

13. Hver hann neitar sínum misgerdum, þeim mun þad eigi vel vegna, enn sá sem þær medkenner, og fyrerlœtur þær, mun miskun ødlast.

14. Sæll er sá sem alltíd er ugg-ande: enn sá sem hardsvíradur er mun falla í ólucku.

15. Einn ógudlegur, sem stiornar yfer fátœkum lyd, þad er grenjande Leon, og hungrad biarndyr.

16. Nær ed nockur høfdinge er fyrer utann skinseme, þá ske mikelranginde, enn hver ágyrne hatar hann mun lenge lifa.

17. Einn madur sá ed ranginde gerer á blóde nockorar sálar, hann mun ei hiálpast, þott hann fare allt ofann til helvítes.

18. Hver einfalldlega framm gengur mun hiálpast: enn sá sem á røngum veige gengur mun eitt sinn hrapa.

19. Hver á sínum akre erfidar hefir brauds nægd, enn sá sem idiuleysenu eyterfylger mun hafa nóglegann armód.

20. Trúr madur verdur mikelega blessadur: enn sá sem flyter ser ad verda ríkur mun ei saklaus blífa.

21 Manngreinar álit er eigi godt ad hafa, þviad fyrer saker eins braudbita gerer hann líka illt.

22. Hver hann flyter ser til ríkdoms, og er øfundsiukur, hann veit ei, ad hønum skal ólucka mœta.

23. Hver hann ávítar nockurn mann, hann mun epter þad hylle finna, meir enn hinn sem í eyrunn fagurt talar.

24. Hver hann tekur nockud frá fødur sínum og módur og seger þad vera enga synd, sá er selage forbíarfarans.

25. Dramblátur madur kveiker deilur, enn sá sem treyster á Drottenn mun fitna.

26. Hver hann treyster á sitt hiarta, sá er heimskur, enn sá sem skinsamlega frammgengur, mun umflya.

27. Hver hann gefur fátækum hann skal eigi bresta, enn sá sem sínum augum fravíkur, hann mun miøg fordiarfast.

28. Þegar ógudleger upp rísa þá levna ser mennerner. Enn þegar þeir fyrerfarast þá fiølgar rettláta.

## 29. Capitule.

1. Hver hann er hardsvíradur, ímóte hyrtingunne, mun voveiflega fyrer utan alla hiálp, fordiarfast.

2. Nær marger eru rettláter, fagnar fólked, enn þegar sá ógudlege drottnar andvarpar fólked.

3. Hver hann elskar vísdom, sá gledur sinn fødur, enn sá ed umgeingst med hórum, sá misser sitt gots.

4. Kongurenn vidretter landed fyrer løgenn, enn sá sem ágiarn er fordiarfar þad.

5. Hver hann smiadkar vid sinn náunga hann leggur net fyrer hans gaungu.

6. Þegar illur madur syndgar fiøtrar hann siálfann sig í snøru, enn rettlátur madur fagnar og hefir unadsemd.

7. Hinn rettláte kynner ser málefne fátæks manns, enn hinn ógudlege acktar enga skinsemd.

8. Spottarar færa diarflega borgena í ólucku, enn vitrer menn heita reide.

9. Nær einn vitur madur kemur til ad høndla vid einn heimskann, hvert hann reidest edur hlær, hefir hann enga ró.

10. Blódgiarner menn hata einfalldann, enn hiner rettlátu leita hans sálar.

11. Heimskur madur útheller ølldungis sínum anda, enn hyggenn madur hiá ser helldur.

12. Sá hofdingenn sem lyst hefir á lygum, þess þenarar eru aller ógudleger.

13. Fátæker og ríker mæta hverer ødrum, enn beggia þeirra augu upplyser Drottinn.

14. Kongur sá sem trúlega rett gerer fátækum þess velldisstoll stadfestist ad eylífu.

15. Vøndur og hyrting gefur hyggende, enn þad ungmenne sem siálfrádt er mínkar sína módur.

16. Hvar ad eru marger ógudrækner, þar eru margar synder, enn rettláter menn munu aflifa þeirra hrapan.

17. Aga þú son þinn, þá mun hann gledia þig, og gera hægd ønd þinne.

18. Þegar þrytur spádóma, þá villest fólked, og eydest: enn sæll er sá sem bívarar løgmáled.

19. Einn þræll lætur ser eigi segiast med ordum, þviad þó hann allt til reidu skile, tekur hann ser þad eigi til.

20. Ser þú þann mann sem fliotur er til ad tala, so er betre von á heimskum manne enn hønum.

21. Nær nockur þræll er frá barnæsku uppalenn med eyterlæte, so vill hann vera þadan í frá einn iungkære.

22. Reidenn madur uppvekur deilur, og grimmur madur gerer margar synder.

23. Drambseme mannsins mun steypa hønum: enn sá hinn litelláte mun fá heidur.

24. Hver hlutskipte hefir med

þiosum heyrer bølvan, og seiger þar eigi til, hann hatar sitt líf.

25. Fyrer monnunum ad óttast leider til falls:enn hver hann treyster á Drottinn verdur verndadur.

26. Marger leita auglitis høfd ingians: enn serhvers eins domur kemur frá Drottne.

27. Ranglátur madur er fyrer rettlátum andstygd, og sá sem er retts vegar hann er þeis ógudlega andstygd.

## 30. Capitule.

1. Þesse eru ord Agur, sonur Jake, kenning og ræda mannsins Leithiel, Leithiel og Uchal.

2. Þvi eg em heimskastur allra manna, og mannleg skinseme er eigi med mer.

3. Eg hefe eigi vitsku lært, og ei veit eg hvad heilagt er.

4. Hver uppstígur í himenenn og nidurstígur? hver helldur vindenum í sínum høndum? hver samanbindur vøtnenn í eitt klæde? hver hefir sett øll jardarennar endemørk? hvad heiter hann? og hvad heiter sonur hans? veistu þad?

5. Øll Guds ord eru gagnhreinsud, og eru skiølldur fyrer þeim, sem á hann treysta.

6. Auk eigi vid hans ord par, ad hann straffe þig eigi, og verder þú liugare fundenn.

7. Tveggia hluta bid eg þig, ad þú viler eigi synia mer ádur eg deyi

8. Afgudadyrkan og lygar láttu vera langt frá mer: fátækt og audæfe gef þú mer eigi; enn láttu mig hafa minn deilldann matar verd.

9. Annars kynna eg, nær eg yrde ofmettur, ad afneita þer, og segia: hver er Drottinn? eda ef eg yrde of fátækur, hlyte eg ad stela, og mig á Guds míns nafne ad forgrípa.

10. Forrád eigi þrælenn vid sinn lánar Drottinn, ad hann bølve þer eigi, og hlioter þú ad bera søkena.

11. Þar er þad kyn sem bølvar sínum fødur, og eigi blessar sinne módur.

12. Eitt kyn sem þykest hreint vera, og er þó eigi þveiged af sínum saur.

13. Eitt kyn sem hátt ber sín augu, og hátt upp lypter sínum augnabrúm.

14. Eitt kyn sem hefir sverd fyrer tennur, þad sem etur med sínum jøxlum, og uppetur þá aumu í landenu, og hina fátæku á medal lydsins.

15. Blódsugann hefir tvær dætur, lát hingad, lát hingad.

16. Þrír hluter eru ósedianleger, og hinn fiórde seger ei, þad næger, helvíte, konunnar tilluctur kvidur, jørdenn sedst ei af va'nenu, og elldurenn seger eigi: þad er nóg.

17. Þad auga sem spottar sinn fødur, og forsmáer sína módur henne ad hlyda, þad hlióta hrafnar út ad kroppa vid lækenn, og arnar ungar ad eta.

18. Þrír hluter þykia mer óf undarleger, og hinn fiorda veit eg eigi.

19. Arnarennar vegur í himnenum; høggormsins vegur á biargenu; skipsins farvegur midt í hafenu, og vegur eins manns til einnrar píku.

20. Líka so er hórkonunnar vegur; hún svelger og þurkar sinn munn, og seger: eg hefe eigi neitt íllt gert.

21. Eitt land verdur oróſamlegt af þremur hlutum, og hinn fiorda þoler þad eigi.

22. Nær einn þræll verdur kongur: þegar fávís madur er offaddur.

23. Þegar ill kona verdur tekenn til hiúskapar, og nær ein ambátt verdur erfinge sinnar matmódur.

24. Fioter hluter eru smáer á jördunne, og þeir eru hygnum vitrare,

25. Maurenn, einn veikur lydur, þó útvega þeir sína fædslu um sumartímann.

26. Kunisenn, sá veikur lydur, þó sem ádur setia þeir sitt hus í steinunum.

27. Grashoppurnar hafa engann kong, þó ganga þær út allar í hóp.

28. Konguloenn vinnur med sínum höndum, og er í konganna slotum.

29. Þrír hluter hafa sínann gang, og þad fiorda gengur vel.

30. Leoned mátlugt á medal dyranna, og snyr fyrer engum aptur.

31. Veidehundur med þyckum lendum, og einn hrutur, og einn kongur, imóte hverum engenn þorer ad rísa.

32. Hafer þú heimskur vered, og of hátt fared, og nockud vondt á form haft, so legg þú hönd á munn þer.

33. Þegar menn skaka miolkena þá gerest þar af smiör: og hver hann snyter fast nasernar, hann þvingar þar blód ut, og hver hann egner til reide hann kemur deilu af stad.

## 31. Capitule.

1. Þesse eru ord Lamuels kongs, sú kenning er, móder hans kennde hönum.

2. Ach minn útvalde! ach þú sonur míns lífs! ach minn ofska sonur!

3. Fá þú eigi konunum þitt gots, og gack þú eigi þann veg sem kongarner fordiarfast á.

4. O eigi kongunum, Lamuel! gef eigi kongunum vín ad drecka, ne sterkann drick höfdingiunum.

5. Þeir kynnu ad drecka, og gleyma retkindunum, og umsnúa sök þeirra aumu nockurs stadar.

6. Gef þeim sterkann drick ed aflífast skulu, og vín syrgendum sálum.

7. So þeir drecke og gleyme eymd sinne, og hugse eigi framar til sinnar ólucku.

8. Luk upp þinn munn fyrer mállausa, og fyrer allra þeirra skulld, sem fyreklatner eru.

9. Uppluk þínum munne, og dæm rett, og hefn aumra, og fátækra.

10. Hverum sem vill til ein dygdug kona, hún er miked betre enn dyrl[illegible]ar perlur.

11. Hiarta hennar mannsins má henne treysta, og átvinnu mun hann eigi vanta.

12. Hún gerer hönum godt, enn eigi vondt alla sína lífdaga.

13. Hún handterar ull og lín, og erfidar giarnan med sínum höndum.

14. Hún er líka sem þad kaupmanns skip, er sæker sína næring í siarlægd.

15. Hún stendur upp um nætur og gefur síni húse fædslu, og sínum ambáttum ad eta.

16. Hún hugsar um einn akur, og kauper hann, og plantar einn víngard af sínum handa ávexte.

17. Hún gyrder fast sínar lendar, og styrker sína armlegge.

18. Hún vaktar hvernenn ad gagn gere hennar síslan, hennar skridliós slocknar eigi á nóttunne.

19. Hún retter sína hönd til spunans, og fingur hennar fara med snælduna.

20. Hún útbreider sína hönd til

fátækra, og retter sína hönd ad þurfstugum.

21. Hún er óhrædd um sitt hús fyrer sniónum, þvi allt hennar hús hefir tvennann klædnad.

22. Hún gerer siálfre ser abreidslu: hvítt silke og purpure er hennar klædnadur.

23. Nafnfrægur er hennar madur í borgarhlidunum, þá hann siтur hiá ølldungunum landsins.

24. Hún gerer einn kyrtel, og selur hann: kramaranum gefir hún bellte.

25. Hennar prydе er þad, ad hún er hreinferdug, og áslundunarsøm, og her epter mun hún hlæa.

26. Hún lykur upp sinn munn med vísdome, og á hennar tungu er heilnæmur lærdómur.

27. Hún skodar hvernenn ad framm fer í sínu húse, og etur eigi sitt braud med idiuleyse.

28. Syner hennar koma upp, og prísa hana sæla vera, og hennar madur lofar hana.

29. Margar dætur samansafna audæfum, enn þú ert þeim øllum framar.

30. Lysilegur og fagur ad vera er ecke: eina kvinnu sem óttast Drottinn, skulu menn lofa.

31. Henne mun verda hrósad af ávexte sinna handa, og verk hennar munu lofa hana í borgarhlidunum.

Her endar Ordskvidu Salomonis.

# Predikare Salomonis.

## 1. Capitule.

1. Þetta er Predikarans ræda, sonar Davids, kongsins í Jerusalem.

2. Þad er alltsaman ølldungis hegome, sagde Predikarenn: þad er allt ølldungis hegome.

3. Hvad hefir madurenn meira af allre sinne armædu, sem hann hefir under sólunne?

4. Ein ætt forgengur, sú ønnur kemur. Enn jordenn blifur æfenlega.

5. Sólenn gengur upp og nidur, og rennur til síns stadar, þad hún kome upp aptur.

6. Vindurenn gengur til sudurs, og hleypur umkring til nordurs, og aptur til þess stadar sem hann uppbyriadest.

7. Øll vøtn falla í sióenn, og þó verdur siórenn eigi fullur; til þess stadar sem þau innflióta, flióta þau aptur í burt.

8. Aller gerningar eru fuller af armædu, so engenn kann ad fullsegia þad. Augad ser sig alldrei sadt, og eyrad heyrer sig alldrei sadt.

9. Hvad er þad sem sked er? Þad sama sem ske skal her epter. Hvad er þad sem madur hefir gert? Þad er líka sem þad hid sama, hvad madur skal gera her epter, og þar sker eigi neitt nytt under sólunne.

10. Sker þad og nockud, af hverju madur má segia: siá þú! nytt er þad? Þvi þad er og ádur sked í fyrrum tídum sem vered hafa fyrer oss.

11. Menn þeinkia eigi, hvorsu ádur hefir tilgenged, so kann madur

og eigi ad hugsa um þad, hvad her epter skedur á medal þeirra, sem epter munu koma.

12. Eg predikare, var kongur yfer Israel í Jerusalem.

13. Og eg lagde mitt hiarta til ad leita epter, og upp grenssa med skinseme, um allt þad sem menn gera under himnenum. Soddan vesæla armædu hefir Gud gefed mannanna børnum, ad þau skulu plágast þar í.

14. Eg sá til allra þeirra gerninga, sem ske under sólenne, og siá! þad var alltsaman hegome og eymd.

15. Boged kann eigi ad verda rett; og hvad brestur, kann eigi ad teliast.

16. Eg sagde í mínu hiarta: siá! eg em dyrdlegur ordenn, og hefe meire vísdóm enn aller þeir sem vered hafa fyrer mer í Jerusalem, og mitt hiarta hefir miked lært og reynt.

17. Og eg lagde mitt hiarta og so þar epter, ad eg lærde vísdom, og heimsku og hyggende, og eg fornam, ad soddan var og so armæda.

18. Þvi þar sem mikell vísdomur er, þar er mikel sorg: og sá sem miked vill læra, hann hlytur margt ad lída.

## 2. Capitule.

1. Eg sagde í mínu hiarta: nú vel! eg vil lifa med lyst, og hafa góda daga, enn siá þú! þad var og einnenn hegóme.

2. Eg sagde til hlátursins: þú er galenn, og til gledennar, hvad gerer þú?

3. Þá hugsade eg í mínu hiarta, ad draga minn likama frá víne, og draga hiarta mitt til vísdoms, so eg kynne ad vita hvad heimskann være, þar til ad eg gæte lært, hvad mønnum være godt, ad þeir skylldu gera, so lenge þeir lifdu under himnenum.

4. Eg gerde mikla hlute, eg bygde upp hús, plantade víngarda.

5. Eg gerde mer jurtagarda og lystegarda, og plantade þar í allra handa friosamleg tre.

6. Eg gerde mer fiskevøtn, ad vøkua þar út af skogenn þeirra græn triánna.

7. Eg hafde þræla og ambáttir, og heimilis fólk. Eg var stóraudugur af nautum og saudum, meir enn aller þeir sem vered høfdu fyrer mer í Jerusalem.

8. Eg safnade mer einnenn silfre og gulle, og liggiande fesióð, af konungunum, og løndunum. Eg skickade mer saungmenn og saungkvinnur, og mannanna vellysting, allsháttud hliodfære.

9. Og eg megtadest yfer þá alla, sem vered høfdu ádur enn eg, í Jerusalem, og vísdomurenn var med mer.

10. Og allt hvad mín augu gyrntust, þad let eg þau fá, og eg varnade mínu hiarta engrar glede, so þad var gladvært af øllu mínu arvide. Og þad hellt eg fyrer mitt hlutskipte, af øllu mínu erfide.

11. Enn sem eg sá til allra minna verka, sem mín hønd gert hafde, og til þeirrar mædu, sem eg hafde haft: siá þú! þá var þad alltsaman hegome, og hørmung, og ecke meira under sólunne.

12. Þá snere eg mer um, til ad skoda vísdóm og speke, og heimsku (því hver veit, hvad sá skal vera fyrer einn mann epter kongenn, sem þeir allareidu gert hafa)?

13. Þá sá eg: vísdomurenn geck yfer fávitskuna, sem liósed yfer myrkred.

14. Og ad hyggens manns augu standa í høfdenu: enn heimskur gengur í myrkre, og eg merkte þó, ad so gengur einum sem ødrum.

15. Þá hugsade eg í mínu hiarta; fyrst ad þeim heimska gengur líka sem mer, þvi mun eg þá hafa sokt epter vitskunne? þá þeinkte eg í mínu hiarta, ad soddan var og so hegome.

16. Þviad menn minnast eigi ætíd þess hyggna, so lítt sem þess heimska, og þeir epterkomande dagar gleyma øllu: og líka sem sá hinn hyggne deyr, so og líka hinn heimske.

17. Þar fyrer leiddest mer ad lifa, þvi þad hagade mer illa sem skede under sólunne, ad þad er so ølldungis hegome og mæda.

18. Og mig angrade allt mitt erfide, sem eg hafde under sólunne, at eg skyllde epterláta þad einum manne, sem vera skyllde epter mig.

19. Þvi hver veit, hvert hann mune verda hyggenn eda bitstola? og hann skal þó ráda í øllu mínu arvide, sem eg hafde víslega gert under sólunne, þad er og hegóme.

20. Þar fyrer snere eg mer, ad mitt hiarta skyllde láta af øllu erfide sem eg gerde under sólunne.

21. Þviad einn madur, sem gert hefir sitt erfide med vísdóme, skinseme og snilld, hann hlytur ad láta annann þad epter sig erfa, sem eigi neitt þar til erfidade, þad er og einn hegome, og stór ólucka.

22. Þvi hvad fær madurenn af øllu sínu erfide, og mædu síns hiarta, sem hann hefir under sólunne?

23. Utan pínu, sorg, og trega, alla hans daga? so hans hiarta hefir eigi hvíld á nóttunne; þad er og hegome.

24. Er þad nú eigi mannynum betra ad eta og drecka, og ad hans sál se glød í hans erfide? enn þetta sá eg og so, ad þvilíkt kemur af Guds hende.

25. Þvi hver hefir gladlegar etid, og endurnært sig, enn eg?

26. Þvi hann gefur þeim manne vísdóm, forstand, og gladværd, sem hønum þocknast: enn þeim synduga gefur hann ólucku, ad hann safne og samandrage, og þó mun þad gefast þeim sem Gude þocknast; þar fyrer er þad og so hegome og eymd.

## 3. Capitule.

1. Aller hluter hafa sína tíma, og allt áform under himnenum þad hefir sína stund.

2. Tíme er ad fædast, og tíme er ad deya. Tíme er ad planta, og tíme er upp ad ræta þad, sem plantad er.

3. Tíme er ad deyda, og tíme er ad græda. Tíme er ad brióta nidur, og tíme er upp ad byggia.

4. Tíme er ad gráta, og tíme er ad hlæia. Tíme er ad syrgia, og tíme er ad dansa.

5. Tíme er steinum sundur ad dreifa, og tíme er steinum saman ad safna. Tíme er ad fadmast, og tíme er ad vera langt fyrer utan fadmløg.

6. Tíme er epter ad leita, og tíme er ad tapa. Tíme er ad hallda, og tíme er í burt ad kasta.

7. Tíme er ad rífa ísundur, og tíme er saman ad sauma. Tíme er ad þeigia, og tíme er ad tala.

8. Tíme er ad elska, og tíme er ad hata. Tíme er ad beriast, og tíme er frid ad hafa.

9. Madur má erfida med hverium hætte sem hann vill, þó fær hann ecki meira til vegar komed.

10. Þar út af sá eg þá mædu

sem Gud hafde mønnunum gefed, ad þeir skyllldu kveliast þar i.

11. (Enn hann gerer alla hlute vel á sínum tíma) og lætur þeirra hiørtu kveliast, hvernenn þad mune ganga til í verølldunne. Þvi madurenn kann eigi ad hitta uppá þad verk, semGud gerer, hverke upphaf ne enda.

12. Þar fyrer merkte eg, ad ecki er betra þar uti, enn ad vera gladur, og ad gera ser til góda i lífe sínu.

13. Þvi hver sá madur, sem etur og dreckur, og er gladur í ølla sínu erfide, þad er ein Guds gáfa.

14. Eg merkte, ad øll Guds verk blífa ætíd stødug: madur kann hverke ad auka þau ne vana, og Gud verkar þvílíkt, só menn skule óttast hann.

15. Hvad Gud gerer, þad stendur þar, og hvad hann vill gera, þad hlytur ad ske, þvi hann leitar þess sem útreked er.

16. Eg sá enn framar meir under sólunne, domsins stad, þar var eitt ógudlegt athæfe, og stad réttlætesins, þar voru ógudleger.

17. Þá þeinkte eg í mínu hiarta: Gud mun dæma bæde hinn réttláta og so hinn rangláta, þvi allt áform, og aller gerningar hafa sinn tíma.

18. Eg sagde í mínu hiarta um athafner mannanna, í hverum Gud lætur vita og ásiá, eins og væru þeir sín á medal so sem fenadur.

19. Þvi mannenum gengur líka sem fenadenum, og so sem þetta deyr, so deyr þad og so, og þad hefir allt einsslags anda. Og madurenn hefir eigi þar mefra en fe nadurenn, þvi þad er allt hegome.

20. Þad fer allt til eins stadar; þad er alltsaman gjørt af dupte, og verdur aptur ad dupte?

21. Hver veit, hvert mannsins ande fer upp epter, og fiárens ande nidur epter under jørdena?

22. Þar fyrer sege eg: ecke er betra enn madurenn se gladur í sínu arvide, þvi þad er hans hlutdeilld. Þviad hver vill færa hann þangad, so hann kunne ad siá, hvad epter hann mune ske.

## 4. Capitule.

1. Eg snere mer, og sá til allra þeirra sem órett lída under sólunne, og siá! þar var grátur þeirra sem órettinn lidu, og høfdu þann engann, sem þá huggade, og þeir sem þeim rangt gerdu voru ofmegtuger, so þeir kunnu engann huggara ad hafa.

2. Þá prísade eg þá enu daudu, sem alla reidu frammlidner voru, framar enn þá lifendu, sem enn nú lífed høfdu.

3. Og hann, sá sem eigi enn er er betre þessum hverútveggium, og eigi hafde fornumed þad hid vonda, sem skede under sólunne.

4. Eg sá uppá arvide og ástundan í øllum efnum, þá hatade sá eine þann annann, þad er sannarlega og so hegome og mæda.

5. Þviad einn heimskur madur slær sínum fingrum samann, og etur sitt holld.

6. Betre er full hønd med ró, enn báder knefar fuller med sorg og armædu.

7. Eg snere mer, og sá hegomann under sólunne.

8. Þar var einn einnsaman madur, og eigi vid annan mann, og átte hverte barn ne brodur, og var þó engenn ende á hans arvide, og hans augu urdu eigi mett af ríkdome, fyrer hvern arvida eg, og tek frá minne sálu? þad er þó einn hegome, og vond mæda.

9. So er miklu betre tveir enn einn, þvi þeir nióta þá síns arvidis vel.

10. Falle annar þeirra, so hiálpar hans stallbróðer hønum á fætur. Ve se þeim sem alleinn er, nær hann dettur, þá er þar engenn annar, sem hann uppreiser.

11. Og nær tveir tilsamans liggia, þá vermer hver annann. Hversu má einsømlum heitt verda?

12. Einn má yferfallenn verda, enn tveir kunna ímóte ad standa, þviad eitt þrefalldt snæri, slitst eigi audvelldlega ísundur.

13. Eitt fatækt barn hygged er betra enn gamall kongur, sá sem er heimskur, og eigi kann ad vara sig.

14. Einn kemur af fángelse til kongsríkes, og einn, sem fædder er í sínu kongsríke, utarmast.

15. Og eg sá alla þá lifendu under sólunne ganga hiá einu ødru barne, sem uppkoma skyllde í hins stad,

16. Og þar var engenn endi á þvi fólke sem geck fyrer, og epter, og feingu þó enga glede af hønum, þad er og só hegome og eymd.

## 5. Capitule.

1. Vakta þinn fót, nær þú gengur til Guds húss, og kom so þú kunner ad heyra. Þad er betra enn fáviss manns offur, þviad þeir vita eigi hvad vondt þeir gera.

2. Vert eigi fliótur med þínum munne, og lát þitt hiarta eigi hasta sig ad tala nockud fyrer Gude. Þviad Gud hann er á himnum, enn þú á jørdu, þar fyrer láttu þín ord vera fá.

3. Þvi, hvar mikel sorg er, þar koma draumar: og hvar sem mørg ord eru, þar heyra menn dára.

4. Nær þú gerer Gude eitt heit, þá tef þú eigi ad efna þad, þvi á heimskum hefir hann enga þocknan. Hveru sem þú lofar, þá hald þú þad.

5. Betra er, ad þú lofer engu, enn ad þú hallder eigi, þad þú lofar.

6. Leyf eigi þínum munne ad hann afvega leide þitt holld; og seg eigi fyrer englenum: eg em saklaus. Gud mætte annars styggiast yfer þinne rauslu, og fyrerdæma øll verk þinna handa.

7. Hvar ed marger draumar eru, þar er hegome og mørg ord; enn óttast þú Gud.

8. Ef þú ser, ad þeim fátæka er gert órett, og rettlæted og rettur enn ryckest í burt úr landenu, þá undrast eigi þann ásetning. Þvi þar er enn einn hærre vacktare yfer háfum, og þó eru enn hærre yfer þeim bádum.

9. Þar yfer er kongurenn í øllu landenu, til ad arvida akurenn.

10. Sá ed elskar peninga, sá verdur alldrei saddur af peningum: og hver hann elskar ríkedæmed, hann fær ecke gagn þar útaf, þad er einnenn hegome.

11. Þvi hvar miked gots er, þar eru marger sem þad eta: og hvad gagn gerer þad þeim sem þad hefir, utan hann ser þar uppá med augunum?

12. Sá sem arvidar, hønum er svefnenn sætur, hvert helldur hann etur líted eda miked, enn fylle hins ríka lætur hann eigi sofa.

13. Þad er ein vond plága, sem eg sá under sólunne, ad hallda ríkdome ser til skada, sem hann hefir.

14. Þvi sá hinn ríke fyrerferst med storre eymd: og þó hann hafe átt einn son, þá helldur hann engu í hendenne.

15. Líka sem hann kom nakenn frá sinnar módur líse, so fer hann og í burt aptur, sem hann kom, og

hann tekur eigi þar í sína hønd med sier af sínu erfide, nær hann í burt fer.

16. Þad er ein vond plága, ad hann fer í burt líka sem hann kom. Hvad hiálpar hønum þá, ad hann hefir arvidad í vindinn?

17. Alla sína daga hefir hann eted í myrkre, og í stórre sorg, og siúkdóme og hriggd.

18. So lyst mer nú þad godt vera, ad þad se fínlegt, nær madur etur og dreckur, og er gladur í øllu þvi arvide sem hann gerer under sólunne, um sína lífdaga, af þvi sem Gud gefur hønum, þvi þad er hans partur.

19. Þvi hverum þeim manne, sem Gud gefur ríkdom, og audæfe, og valld, til ad eta og drecka þar af, epter sínu hlutskipte, og er gladvær í sínu erfide, þad er ein Guds gáfa.

20. Þvi hann þeinker eigi miked um þad auma líf, þviad Gud gledur hans hiarta.

## 6. Capitule.

1. Þad er ein ólucka, sem eg sá under sólunne, og er almenneleg á medal mannanna.

2. Einn, hverum Gud gefur ríkdom, gots og heidur, og vantar eigi þar á, hvad hans hiarta lyster, og Gud gefur hønum þó eigi magt til ad neyta þess ens sama, helldur er annar þvi eydande, þad er hegome, og ein vond plága.

3. Og þó einn gæte hundrad børn, og hefde so langa lífdaga, ad hann lifde mørg ár, og hans sál yrde alldrei sødd af aude, og blife án grafar; um þann sama sege eg: ad ótímabær burdur er betre enn hann.

4. Þvi í hegomanum kom hann, og fer í myrkre í burt, og hans nafn verdur huled í myrkrunum.

5. Af sólunne hefir hann eigi glede, og enga ró veit hann, hverke her ne þar.

6. Og þó hann lifde í tvø þusund ár, þá hefir hann alldrei neitt godt ged. Kemur þad eigi allt í einn stad?

7. Hverum manne er erfided uppá lagt, epter sínum máta, enn hiartad kann eigi þar vid ad vera.

8. Þvi hvad afrekar hyggenn madur meir enn heimskur? hvad underst endur hinn fátæke, ad hann vill vera á medal lifande manna?

9. Betre er ad neyta þess nálæga gods, enn ad hugsa epter ødru, þad er og so hegome og eymd.

10. Hvad er þad, hverju sem einn er hátt prísadur; menn vita þó, ad hann er madur, og kann eigi ad hallda þrætu vid sier øflugra.

11. Þvi marger eru hegomleger hluter; hvad hefir madurenn meira þar út af?

## 7. Capitule.

1. Þviad hver veit, hvad mannenum er nytsamlegt í lífenu, so lenge sem hann lifer í sínum hegoma, hvad í burtu hverfur sem einn skugge? eda hver vill segia mannenum, hvad epter hann mune fram koma under sólunne?

2. Eitt godt ricte er betra enn godt salve, og daudansdagur helldur enn fædingardagurenn.

3. Þad er betra ad ganga í sorgar hús, helldur enn í dryckiu hús: í hinu er allra manna endalykt, og hiner lifendu setia þad sier í hiarta.

4. Betra er ad syrgia enn ad hlæa, þviad hiartad forbetrast vid hriggdena.

5. Vitra manna hiørtu eru í

sorgarhúsenu, og heimskra manna hiortu í gledehúse.

6. Betra er ad heyra ávítan hins hyggna, helldur enn ad heyra lof saung hins heimska.

7. Þviad fávís manns hlátur er líka sem þá þyrnar snarka under kötlum, og þad er og so hegóme.

8. Underþricking gerer hyggenn mann galenn, og gáfur fordiarfa eitt hiarta.

9. Ender á einum hlut er betre enn upphafed. Þolennmódur ande er betre enn metnadar ande.

10. Ver þú eigi fliótur í þínu sinne ad verda reidur, þviad reidenn hvílest í hiarta heimskra.

11. Seg þú eigi: hvad er þad, ad þeir lidnu dagar voru betre enn þesser? þvi soddan er ei vitmannleg spurn.

12. Vitskann er god med erfdagotsenu, og hiálpar til ad einn kann at gledia sig af sólunne.

13. Þviad so sem vitskann verndar, so vernda audæfenn, enn vitskann gefur lífed þeim hana hefir.

14. Alíttu Guds gerninga, þvi hver kann ad gera þad rett sem hann gerer boged?

15. Ver þu gladur á þeim gódu døgum, og tak þá hina vondu daga og til góda. Þviad Gud stickar þá hvern hiá ødrum, so madurenn skal eigi vita af þvi, hvad epterkomande er.

16. Alls háttad hefe eg sed í minne hegóma tíd. Þar er einn rettlátur og fyrerferst í sínu rettlæte: og þar er einn ógudlegur, hver lenge lifer í sinne illsku.

17. Ver þú eigi ofrettlátur, og eigi ofvís, so þú fordiarfer þig eigi.

18. Ver eigi ofmiøg ógudlegur, og vert eigi heimskur, so þú eigi deyer í ótíma.

19. Godt er þer ad høndla þetta, enn lóta þitt annad eigi sleppa þer úr hende. Þvi hver ed óttast Gud, sá umflyr þetta allt.

20. Vísdomurenn styrker þann vísa, meir enn tíu volldugir í stadnum.

21. Þvi þar er engenn madur á jørdunne, sem godt gere, og eigi syndge.

22. Legg eigi á hiartad allt þad sagt er: so þú heyrer ei þinn þión bølva þer.

23. Þvi þitt hiarta veit, ad þú hefir og so opt ødrum bølvad.

24. Allt soddann hefi eg med vitsku reynt. Eg þeinkte: eg vil verda hyggenn, enn hún kom langt frá mer.

25. Þad er langt í burt, hvad skal þad verda? og þad er miøg diúpt, hver vill þad finna.

26. Eg snere mínu hiarta til ad rannsaka, og út ad spyrla, og ad leita epter vísdóme og listum, til ad reyna heimsku ógudhræddra, og villur þeirra fávísu.

27. Og eg fann, ad soddann ein kvinna var beiskare enn daudenn, hverrar hiarta bæde var net og snara, og hennar hendur eitt band. Hver Gude þocknast, sá kemur frá henne, enn sá hinn synduge skal fangenn verda af henne.

28. Siá þú! þvilíkt hefi eg fundeð, seger predikarenn, eitt epter annad, so ad eg mætte finna kunnáttu.

29. Og mín sál leitar enn nú, og hefir eigi funded þad. A medal þusunda fann eg einn mann, enn á medal þeirra allra fann eg enga kvinnu.

30. Enn siá þú ad eins, þad hefi eg funded, ad Gud skapade mannenn upprettann, enn þeir leita mikillrar kunnáttu. Hver er so hygg-

enn? og hver kann ad útleggia þad?

## 8. Capitule.

1. Mannsins vísdómur upplyser hans andlit:enn sá sem einardur er, hann er óvinsæll.

2. Eg varðveitte konungsins ord, og Guds eid.

3. Flyttu þer eigi ad ganga frá hans andlite, og vert eigi í vond um saukum þvi hann gerer hvad hann lyster.

4. Já kongsins ordum er magt, og hver má segia til hans: hvad gerer þú?

5. Sá sem hellder bodordenn, hann skal einskis vonds var verda: enn eitt vitugt hiarta veit tíd og máta.

6. Þviad allt áform hefir sína tíd og máta, þvi margfalldleg er mannsins ólucka hiá hönum.

7. Þviad hann veit ei, hvad vered hefir: og hver kann ad segia, hvad verda kann?

8. Madurenn hefir eigi magt yfer andanum, andann ad forhindra, og engenn hefir magt á daudans tíma, og hann skal eigi laus látast í strídenu. Ogudlegar athafner hiálpa eigi þeim ógudlegu.

9. Þetta hefi eg alltsaman sed, og eg lagde mitt hiarta til allrar þeirra idiu, sem sker under sólunne. Einn madur rædur stundum yfer audrum ser til óluclu.

10. Og þá sá eg þá enu ógudræknu sem jardader voru, hverer genged og spacerad höfdu í þeim heilaga stad, og þeim var gleymt í borgenne, þad þeir höfdu so gert: þad var og einnenn hegóme.

11. Fyrst þar kemur eigi sliótlega einn dómur yfer vondar gerder, þar af blifur mannsins hiarta fullt til ad gera illt.

12. Þó hinu synduge gere hundrad sinnum illt, og life þó leinge, þá veit eg þó líka vel, ad þeim skal þó ganga vel, sem óttast Gud, og hrædast fyrer hans auglite.

13. Þviad þeim enum ógudlegu mun ei vel ganga: og sem einn skugge skulu þeir eigi lengur lifa sem eigi óttast Gud.

14. Þad er einn hegome sem á jördunne skedur: þar eru rettláter, þeim gengur so sem þeir hefdu verk þeirra ógudlegu: og þar eru ógudleger, þeim gengur sem hefdu þeir verk rettlátra. Eg sagde: þad er og hegóme.

15. Þvi prísade eg glèdena, ad madurenn hefir ecke betra under sólunne, enn ad eta og drecka, og vera gladur, og ad hann meige flikt fá af sínu arvide alla sína lífdaga, sem Gud gefur hönum under sólunne.

16. Eg gaf mitt hiarta til ad vita speke, og ad siá þá armædu, sem sker á jördunne, ad einn hann sá hverke dag ne nótt svefn med sínum augum.

17. Og eg sá alla Guds gerninga, þviad einn madur kann þad verk eigi ad finna, sem ad sker under sólunne: og þess meira sem madurenn ersidar þar epter ad leita, þess minna finnur hann; þó hann segde so: eg em hyggenn, og veit þad, þá fær hann þó eigi fundet þad.

## 9. Capitule.

1. Þvi eg hefe allt sodan lagt uppá hiartad, ad rannsaka þad allt, ad þar eru rettláter og víser, og þeirra undergefner í Guds hende, þó þecker engenn madur nockurstadar hverke kærleika ne hatur, sem hann hefir fyrer ser.

2. Þad gengur so einum sem

ødrum, rettlétum sem þeim óguðlegu, þeim góðu og hreinu sem þeim óhreinu, þeim sem offrar, líka sem þeim eigi offrar. So sem góðum gengur, so gengur syndugum: so sem meineiðurum gengur, so gengur og þeim sem óttast eidana.

3. Það er einn vondur hlutur á medal alls þess, sem skedur under sólunne, að einum vegnar so sem ødrum, þar af verda hiørtu mannanna full af vondsku, og sávitska er í þeirra hiarta, so lenge þeir lifa, þar epter hliota þeir að deya.

4. Hvíað á medal allra lifande manna er það sem madur æsker, sem er, vonenn, (hvíað einn lifande hundur er betre enn eitt daudt Leon.)

5. Því þeir lifendu vita, að þeir skulu deya: enn hiner daudu vita eigi par, þeir forþena og eigi meira, því þeirra minning er gleymd.

6. So að menn elska þá ei framar, ne hata, ne øfunda, og enga hlutdeild hafa þeir meir í verølldunne, af øllu því sem sker under sólunne.

7. So far burt, og et þitt braud med glede, og dreck þitt vín med góðu geðe, því þín verk þocknast Gude.

8. Lát þú þín klæde ætíð vera hvít, og lát þitt høfud eigi vanta salve.

9. Brúka þitt líf med þinne kvinnu, sem þú kæra hefir, so lenge þú hefir þetta fáfeinga líf, sem Gud hefir gefed þer under sólunne, so lenge sem þitt fáfeinga líf varer; Hvíað það er þinn partur í lífenu, og í þínu arvide, það þú fremur under sólunne.

10. Allt það þer fyrer hendur kemur að gera, þá ger það fús, því í grøfenne, í hverja þú fer, þá er þar hverke verknadur, hagleike, hyggende, ne vísdómur.

11. Eg snere mer, og sá hvernenn það gékk til under sólunne. Til að hlaupa hiálpar eigi að vera fliótur. Til bardaga hiálpar eigi að vera sterkur. Til næringar stodar eigi snidugur að vera. Til ríkdóms hiálpar eigi klókur að vera. Að vera geðþeckur hiálpar eigi það madur kunne einn hlut vel, helldur er það alltsaman komed under tímanum og luckunne.

12. Madurenn veit og eigi sinn tíma; helldur líka sem fiskurenn veidest á skaðsømum aungle, og so sem fuglenn næst í snørunne, so verdur og mannenum burtkippt á vondum tíma, nær hann fellur fliótlega yfer hann.

13. Eg hefe og þann vísdom sed under sólunne, sem mer þókte mikell vera.

14. Að þar var einn lítell stadur, og fátt fólk inne, og þar kom einn mikell kongur, og settest um hann, og bygde stórt hervirke um hann.

15. Enn þar inne fannst einn hyggenn fátækur madur, hver ed frelsa kunne þann sama stad med sínum vísdome, og engenn madur mynntest á þann fátæka mann.

16. Þá sagde eg: að vitskann er betre enn sterkleikenn. Þó urdu hyggende hins fátæka forsmáð, og hans ordum var eigi hlydt.

17. Því sker so, að hyggens manns ord orka meir hiá saktmódigum, helldur enn herranna hróp hiá heimskum.

18. Því vísdómurenn er betre enn harneskia: enn einasti einn skaikur spiller miklu góðu.

19. So fordiarfa og skaðsamar flugur godt salve. Þar fyrer er

stundum heimskann betre enn vísdómur, og æra.

20. Þui hyggens manns hiarta er hønum til hægre handar, enn hiarta hins heimska hønum til vinstre handar.

21. Og þó hinn heimske se fávís í sínum gerninge, þá helldur hann þó hvern mann fyrer dára.

22. Þar fyrer, þegar framm genger tráss hins vollduga imóte þínum vilia, þá fall eigi í mistraust, þvi undann ad láta, stiller stóra ólucku.

## 10. Capitule.

1. Þad er ein ólucka, sem eg sá under sólunne, sem er, fávitska, hver ad er almenneleg á medal volldugra.

2. Ad einn dáre situr í storre virdingu, og þeir ríku sitia lágt nidre.

3. Eg sá þræla á hestum, enn høfdingia ganga sem þræla.

4. Enn hver ed grøfena gerer hann mun falla þar í siálfur: og hver nockurn gard nidur brytur, þann mun høggormurenn stínga.

5. Hver steine úr stad vellter, hann mun hafa ómak þar med: og hver ed tred ísundurklífur, hann mun meida sig þar af.

6. Nær ed járned verdur slioft, og óbrynt á eggena, so hlytur madur ad hvessa þad aptur med vallde, so fylger og vísdómur epter idnena.

7. Einn bakmáll madur er eigi betre enn høggormur, sá ed ósærdur stíngur.

8. Ord af munne eins hyggens manns eru liúfleg; enn hins fávísa varer svelgia hann.

9. Hans orda upphaf er sislska, og endenn er skadsøm heimska.

10. Einn afglape hefir mørg ord, þvi madur veit eigi hvad vered hefir: og hver vill segia hønum hvad ske skal epter hann?

11. Arvide heimskra verdur þeim þúngt, af þvi menn kunna eigi ad ganga í stadenn.

12. Vei þer land! hvers kongur ad er eitt barn, og hvers høfdingiar ad snemma matast.

13. Hepped er þú land! hvers kongur er gofugur, og høfdingiarner neyta síns matar í hæfelegann tíma, til stirkingar, enn ei til lystingar.

14. Þviad fyrer lete saker síga nidur bialkarner, og fyrer forsómunarsamar hendur lekur húsed.

15. Og þvi sker soddan, ad þeir gera brauded til hláturs, og víned hlytur ad gledia þá lifendu, og peningurenn kemur øllu af stad fyrer þeim.

16. Formæl þú eigi kongenum í þínu hiarta, og bølva eigi ríkum í þínu svefnhuse, þvi fuglar himensins bera raustena, og þeir sem hafa vængena segia epter.

## 11. Capitule.

1. Láttu þitt braud fara yfer vatned, so mun þú finna þad løngu seinna.

2. Skipt út á medal sió, og á medal átta, þvi þú veitst ei hver óhamingia koma kann á jørdena.

3. Nær skyenn eru full, þá gefa þau regn yfer jørdena: og nær ed eikenn fellur, hvert hún fellur til sudurs, eda nordurs, í hvern stad hún fellur, þá mun hún liggia.

4. Hver hann gæter ad vedrenu, hann sáer eigi, og hver ed acktar skyenn, hann uppsker eigi.

5. Líka sem þú veitst ei veg vindsens, og hvernenn beinenn tilbúenn verda í módurlífenu, so kann þú eigi helldur vita Guds

gerninga, hvera hann verkar í øllum hlutum.

6. Sádu Þínu sæde árla, og hætte Þín hønd eigi ad kvølldenu, Þvi Þú veist eigi, hvert luckast mune Þad eda annad, og Þó ad hverttveggia luckadest, Þá er Þad Þess betra.

7. Lioſed er ſætt, og Þad er augunum lyſtelegt ad ſiá ſólena.

8. Nær einn madur liſer lenge, og er gladur í øllum hlutum, Þá Þeinker hann alleina á Þá illu dagana, ad Þeir ſo marger eru, Þvi allt Þad hann hender, Þad er hegome.

## 12. Capitule.

1. So gled Þig úngmenne í Þinne æſku, og lát Þitt hiarta vera gladt á Þinne æſku. Ger hvád Þitt hiarta lyſter, og hvad Þínum augum Þocknaſt, og vit Þad: ad Gud mun færa Þig til dómſins fyrer allt Þetta.

2. Láttu ſorgena út úr Þínu hiarta, og tak Þad hid vonda frá Þínu liſe, Þvi barnæſkann og úngdomurenn er hegome.

3. Minnſt Þú á Þinn ſkapara í Þínum úngdome, ádur enn Þeir vondu dagarner koma, og árenn nálgaſt, ad Þú ſeiger: Þau Þocknaſt mer eigi.

4. Adur enn ſólenn og lioſed, tungled og ſtiørnurnar verda myrkar, og ſkyenn koma aptur epter regned.

5. A Þeirre tíd Þá vaktararner í húſenu ſkiálfa, og Þeir ſterku verda ad beygia ſig, og mylnurnar ſtanda tómar, af Þvi Þær ero ordnar ſo fáar, og ſynenn er myrk ígegnum gluggana.

6. Og dyrnar á ſtrætunum bliſa tilluktar, og rauſt mylnukvinnunnar er lítel, og hún uppvaknar nær fuglenn ſyngur, og allar dætur ſaungſins beygia ſig.

7. So ad Þeir háfu einnenn óttaſt og hrædaſt á veigenum, nær mandeltred blomgaſt, og graſhoppurnar Þyngiaſt, og øll lyſtingenn forgeingur (Þviad madurenn fer Þangad ſem hann verdur æfenlega, og ſyrgendurner ganga umkring á ſtrætunum).

8. Adur enn ſilfurſnurann í burt kemur, og ſú gull uppſprettann framm hleypur, og Þær vatnsſkiolurnar leka hiá brunnenum, og hiolenn íſundur brotna yfer brunnenum.

9. Þviad dúpted hlytur ad koma til jardarennar aptur, ſo ſem Þad heſir vered, og andenn til Guds aptur, ſem hann gaf.

10. Þad er alltſaman ølldungis hegome, ſagde predikarenn: ølldungis hegome.

11. Þeſſe ſame predikare var eigi alleinaſta hyggenn, helldur kennde hann og ſo fólkenu godar kenningar, og hann athugade, og rannſakade, og ſamſette mørg ſpakmæle.

12. Hann leitade vid, ad hann gæte funded Þacknæmeleg ord, og ſkrifade rett ord ſannleikſins.

13. Þeſſe ord hins víſa eru ſpiót og naglár, ſkrifud af meiſtara ſafnadarins, og útgefenn af einum hyrder.

14. Vara Þig minn ſonur! fyrer ødrum ſleyrum, Þvi Þar er engenn ending á Þvi ad gera margar bækur, og mikel predikun gerer líkamann Þreyttann.

15. Látum oſs heyra høfudſummu alls lærdómſins: óttaſt Gud, og allt hans bodord, Þvi Þad hlyder til øllum mønnum.

16. Þviad Gud mun alla gerninga frammleida fyrer dómenn, Þá ſem eru følgner, hvert ſem Þeir eru helldur góder, eda iller.

Ender Salomonis Predikara.

# Lofkvæde Salomonis.

## 1. Capitule.

2. Hann kysse mig med kosse síns munns, þviad þín brioſt eru lyſte-legre enn vín.

3. So'ad menn luckte þitt góda salve. Þitt nafn er eitt úthellt sal-ve, þar fyrer elſka þig yngesmey-arnar.

4. Drag mig epter þer, þá hlaup-um vid. Kongurenn færde mig í sitt herberge. Ver kætunſt og gled-um oſs yfer þer, ver þeinkum meir til þinna brióſta, helldur enn til víns. Þeir eru gódu elſka þig.

5. Eg em svört, enn þó miøg lyſte-leg, þer dætur Jeruſalem! ſo ſem tialldbúdernar Kedar, og ſo ſem veſnadartiolld Salomonis.

6. Horfed eigi á mig, ad eg em ſo svört, þviad ſólenn hefir brennt mig ſo. Børn minnar módur eru mer reid. Menn hafa ſett mig, ad eg ſkyllde verda geymſlukona víngardſins, enn eg geymde eigi minn víngard, þann eg hafde.

7. Láttu mig vita hvern mín ſál elſkar; hvar þú fæder; hvar þú hvíl-er um middagenn, ſo eg gange eigi hingad og þangad, hiá hiørdum þinna ſtallbrædra.

8. Þecker þú þig eigi, þú hin fegurſta á medal kvenna, þá gacktu á ſaudanna fótſpor, og fæd þína hafra hiá huſum hiardanna.

9. Eg jafna þer mín kæraſta! vid mín reiſu tye á Pharaonis vøgn-um.

10. Þín kinnbein ſtanda lyſtele-ga í ſpøngunum, og þinn háls í fedionum.

11. Ver vilum gera þer gylltar ſpanger, med ſilfur doppum.

12. Þá kongurenn ſnere ſer hing-ad, gaf minn nardus ſinn ylm.

13. Minn vinur er mer eitt myr-rubyndene, hangande á millum minna brióſta.

14. Minn vinur er mer ein þrug-nachópher í víngardenum til Eng-eddi.

15. Siá mín kæraſta! þú ert føg-ur; føgur er þu: þín augu eru ſem dúfu augu.

16. Siá minn vinur! þú ert fagur og dæelegur: vor ſæng eru græn.

17. Vorer húſsbitar eru af ced-rus, og vorar ſperrur af cypreſſus.

## 2. Capitule.

1. Eg em eitt blomſtur í Saron, og ein róſa í dalnum.

2. So ſem ein rós á medal þyrn-anna, ſo er mín kæraſta á medal dætranna.

3. Líka ſem eitt epliſtre á mille villetrianna, ſo er minn vinur á medal ſonanna. Eg ſit under hans ſkugga ſem mig gyrner, og hans ávøxtur er ſætur mínum barka.

4. Hann leidde mig í vínkiall-arann; og kærleikurenn er hans merke yfer mer.

5. Hann lífgdde mig med blomſtr-um, og nærde mig med eplum, þvi eg em ſiúk af áſtenne.

6. Hans vinſtre hønd liggur und-er mínu høfde, og hans hægre hønd umfadmar mig.

7. Eg ſære ydur þer dætur Jeru-ſalem! vid rádyr, eda hindur á mørkenne, ad þer hverke uppveked ne hræred vid mína kæruſtu, þang-ad til hún ſiálf vill.

8. Þar er rødd míns vinar, ſiá

Þú! hann kemur og stöckur á fiöllunum, og stediar á hædunum.

9. Minn vinur er líka sem rádyr, eda úngur hiörtur. Siá þu! hann stendur á bak vid vorn vegg, og ser ígegnum gluggann, og gægest ígegnum grindurnar.

10. Minn vinur svarar, og seger til mín: statt upp mín kærasta, mín en dæclega, og kom hingad!

11. Þvi siá þú! veturenn er lidenn, regned er af og í burt.

12. Blómsturenn eru uppkomenn í landenu; vored er komed, og turtildufann lætur sig heyra í voru lande.

13. Fíkiutred hefir knappana feinged; víntren standa í blomstre, og gefa sinn ylm. Stattu upp mín kærasta, og kom, mín hin prydelega, kom hingad!

14. Mín dufa í steinholunum í biargskorunum, syn mer þína ásynd; lát mig heyra þína raust, þvi þín rödd er sæt, og þitt auglit er lystelegt.

15. Náed fyrer oss refunum, þeim smárefum, þeim sem fordiarfa víngordana, þvi vorer víngardar blómgast.

16. Minn vinur er minn, og eg em hans, hann, hver ed til haga helldur under rósum.

17. Þar til dagurenn kólnar, og skuggenn burt lídur. Snú þú aptur, og ver sem eitt rádyr, minn vinur, eda sem úngur hiörtur á adskilnadar fiöllum.

## 3. Capitule.

1. Eg leitade um nóttena í minne sæng epter honum sem mína sál elskar: eg leitade, enn eg fann hann eigi.

2. Eg vil standa upp og ganga umkring í stadnum, á götunum og strætunum, og leita epter þeim, sem mín sál elskar. Eg leitade, enn eg fann hann eigi.

3. Vacktararner sem geingu í kring í stadnum, fundu mig. Hafed þer eigi sed þann sem mín sál elskar?

4. Þá eg var skammt framm hiá komenn, þá fann eg þann sem mín sál elskar. Eg hellt honum, og villde eigi sleppa honum, þar til ad eg leidde hann í minnar módur hús, í minnar módur herberge.

5. Eg sære ydur þer dætur Jerusalem, vid rádyrenn, eda hindurnar á mörkenne, ad þer hverke uppveked, ne hræred mína kærustu, þar til hana siálfa lyster.

6. Hver er hann, sem upp geingur af eydemörkenne, sem einn slettur reykur, so sem ylmur af myrru, reykelse, og allrahanda pulver apotekarans?

7. Siá! íkringum Salomonis sæng standa sextíu sterker, af þeim sterku í Israel.

8. Þeir hafa aller sverd, og eru skickader til bardaga, hver hefir sitt sverd á sinne sídu, sökum nætur óttans.

9. Salomon kongur let gera einn sál af Libanus vide.

10. Hans stólpar voru af silfre, enn riáfred af gulle; sæted af purpura; golfed í midiunne var lystelega lagt med steinum, fyrer saker dætra Jerusalem.

11. Þer dætur Zion! ganged út, og siáed Salomon konung med þeirre koronu, sem hans móder koronade hann med, á hans brúdkaups deige, og á gladværdar deige hans hiarta.

## 4. Capitule.

1. Siá þú, mín unnusta! þú ert fögur. Siá: fögur er þú! þín augu eru sem dúfu augu á millum þinna locka. Þitt hár er líka sem geita-

hiord, sú sem klippt er á fialle Gi-
lead.

2. Þínar tennur eru sem ein hiörd
með klipptre ullu, komande frá
sundlaugenne, verande allar sam-
an twílembdar, og þar er engenn
ófrió som á medal þeirra.

3. Þínar varer eru sem dreir-
raudur dreigell, og þitt mál er ly-
stelegt. Þínar kinnar eru sem rifs-
ur á granateple, á millum þinna
locka.

4. Þinn háls er so sem Davids
turn, búenn med vígskördum, á
hverum ad hanga þusund skyllder,
og allskins vopn þeirra sterku.

5. Þín tvö brióst eru þvílíkust
sem tveir únger ródyrs twíburar,
sem fædast under rósunum.

6. Allt þar til ad dagurenn kolu-
ar, og skuggenn burt lídur. Eg vil
fara til myrru fiallsins, og til reyk-
elsis hædanna.

7. Mín unnusta! þú ert dæeleg í
allann máta, og þar er engenn fleck-
ur á þer.

8. Kom mín brud! af Liban-
on, kom af Libanon. Gack her inn,
stíg hingad af Amana hædum, af
hædum Senir, og Hermon, frá
bústad Leonanna, frá Leopardan-
na fiollum.

9. Þú hefir fangad mitt hiarta
mín syster, elskuleg brud! med
einu þinu auga, og med einnre þin-
ne háls kediu.

10. Hversu fogur eru þín brióst,
mín systur, elsku brud! þín brióst
eru elskulegre enn vín, og þinn
smyrsla ylmur yfergengur allar
jurter.

11. Þínar varer, mín brud!
eru sem driúpande húnangs seim-
ur: húnang og miolk er under þinne
tungu, og ylmur af klædum þínum
er so sem ylmur Libanons.

12. Mín syster! kæra brud! þú
er einn læstur alldingardur, ein
tilluckt uppspretta, einn innsiglad-
ur brunnur.

13. Þinn ávöxtur er líka sem
lystugur alldingardur af granata-
eplum, med gofugum ávörtum,
Cypperen med Nardus.

14. Nardus med safrane, kalmus
og cynamon, og allra handa reyk-
elsistre, myrra og aloe, med oll-
um bestum jurtrum.

15. Sem einn alldingards brunn-
ur, sem einn brunnur lifanda vatns,
sá er flytur af Libanon.

16. Rís upp nordan vindur, og
kom sunnann vindur, og blás þú í-
gegnum minn alldingard, so ad af
hans jurtrum driúpe!

## 5. Capitule.

Minn vinur kome hann í sinn alld-
ingard, og neyte af hans edla á-
vortum.

Cap. 5. 1. Eg kom mín syster,
kæra brud! í minn alldingard.
Eg hefe afbrotid mína myrru med
mínum jurtum: eg hefe eted minn
húnangs seim med mínu húnange;
eg hefe drucked mitt vín med minne
miólk. Eted míner elskuleger, og
drecked míner viner, og verded
druckner.

2. Eg sef, enn mitt hiarta vak-
er, þar er míns vinar raust, sem þar
ber. Lát upp fyrer mer mín allra
kærasta, mín syster, mín dúfa, mín
innelega! þviad mitt hofud er fullt
af doggu, og míner lockar eru fuller
af náttdropum.

3. Eg hefe fært mig af mínum
kyrtle, hvernenn skal eg færa mig
í hann aptur? eg hefe þveiged mín-
ar fæiur, hvernenn skal eg gera þá
óhreina aptur?

4. Enn min vinur stack sinne hende
ígegnum sitt hol og minn líkame
skalf þar vid.

5. Þá stód eg upp ad lúka upp fyrer mínum vin. Myrrann draup af mínum høndum, og myrrann flaut um mínar fingur, á lás-lokunne.

6. Og þá eg hafde uppláted fyrer mínum vin, var hann í burtu, og af stad gengenn. Þá geck mín sála út, epter hans ordum: eg leitade ad hønum, enn eg fann hann eigi: eg kallade, enn hann svarade mer eigi.

7. Vacktararner, sem gengu um stadenn, þeir fundu mig, slóu mig sárum. Vacktararner á murnum tóku mína yferhøfn frá mer.

8. Eg sære ydur, þer dætur Jerúsalem, ef þer finned minn vin, þá seged hønum: ad eg ligg siúk af elsku.

9. Hvad er þinn vinur framar enn adrer viner? ó þú en fegursta á medal kvennanna! hvad er þinn vinur framar ødrum, ad þú hefir so sært oss?

10. Minn vinur er hvítur og raudur, útvalenn á medal margra þusunda.

11. Hans høfud er hid besta gull; hans lockar hrocka, svarter sem hrafn.

12. Hans augu eru sem dufu augu hiá vatnslækum, þvegenn í miólk, og standa í fyllingu.

13. Hans kinnar eru sem vaxande jurtagardur apotekarans. Hans varer eru sem rós, sem dryp-ur af rennande myrru.

14. Hans hendur eru líka sem gullhringar hladner med turckose. Hans líkame er sem hreint fílabein, prydt med saphir.

15. Hans bein eru sem marmara stolpar, grundvallader á gullfótum: hans mind er sem Líbanon, útvalenn sem cedrustre.

16. Hans barke er sætur og allur elskulegur. Slíkur er minn vinur: minn vinur er slíkur, þer dætur Jerúsalem.

## 6. Capitule.

1. Hvert er þá þinn vinur gengenn? ó þú hin fegursta á medal kvennanna! hvert hefir þinn vinur viked ser? so vilum ver leita med þer ad hønum.

2. Minn vinur er ofan gengenn í sinn alldingard, í jurtagardenn, ad hann fædde sig í gardenum, og briote rósernar.

3. Minn vinur er minn, og eg em hans, hann sem sig fæder á medal rósanna.

4. Þú ert føgur, mín unnusta! sem Thirza, lysteleg sem Jerúsalem, ógurleg sem brióst fylkingar.

5. (Snú þú þínum augum frá mer, þvi þau gera mig brennande). Þitt hár er líka sem geitsauda hiørd, sem klippt er á fialle Gilead.

6. Þínar tennur eru líka sem saudahiørd, sem kemur af sunde, verande allar tvílembdar, og þar er engenn ófriossøm á medal þeirra.

7. Þín kinnbein eru líka sem rispur á granata eple, á medal þinna locka.

8. Sextíu eru drottningarnar, og áttatíu frillurnar, enn á ungum meyum er engenn tala.

9. Enn ein er mín dufa, mín innelega: ein er sinnar módur en kærasta, og sinnar módur en útvalda. Og þá dæturnar sáu hana, søgdu þær hana sæla, og drottningarnar med frillunum lofudu hana.

10. Hver er sú sem framm kemur sem morgun stiarna? føgur sem tungl? útvalenn sem sól? ognarleg sem brióst fylkingar.

11. Eg em ofan gengenn í hnota-

gardenn, ad skoda greinernar hiá lækiunum, ad skoda hvert ad víntren blómgast, hvert ad granataeplenn grænka.

12. Mín sál visse eigi, ad hann hafde sett mig til vagna Ami Nadabs.

13. Snú aptur, snú aptur, ó Sulamith! snú þú aptur, snú þú aptur, so ad ver meigum skoda þig. Hvad siáed þer á Sulamith, nema dans í Mahanaim?

## 7. Capitule.

1. Hversu fagur er þinn gangur í skónum, þú høfdingians dotter! þínar lendar standa jafnt hver hiá annare, líka sem tvær speingur, þær eins meistara hønd hefir gert.

2. Þinn nafle er sem kringlóttur bikar, hvern ad alldrei vantar dryck. Þinn kvidur er sem hveite hruga, íkring settur med lilium.

3. Þín tvø brióst eru sem tveir unger rádyrs tvíburar.

4. Þinn háls er sem einn turn af fílabeine. Þín augu eru sem fiske vøtnn í Hesbon, hiá Bathrabbim porte. Þínar naser eru sem turnenn á Libanon, sem horfer mót Damasco.

5. Þitt høfud stendur á þer so sem Carmelus. Háred á þínu høfde er sem kongsins purpure, bundenn í ferder.

6. Hversu føgur og elskuleg ertu, mín kærosta, í sælisenu!

7. Þin leingd er lik palmatre, og þín brióst vínþrugum.

8. Eg sagde: eg hlyt ad uppstíga á palmatred, og taka þess kvistu, lát þín brióst vera sem vínþrúgur á vinvidar triám, og þinna nasa lyckt, sem epla.

9. Og þinn barka líka sem godt vín, hvert ed gladlega nidur rennur mínum vin, og talar áleingdar.

10. Minn vinur er minn, og hann helldur ser og so til mín.

11. Kom minn vinur! vid vilum ganga út á mørkena, og vera á þorpunum.

12. So ad vid meigum árla uppstanda til víngardanna, so vid mættum skoda hvert víntren blómgast, og hafa fenged augunn, og hvert granata eplatren hafa útsleiged ser: þar vil eg gefa þer mín brióst.

13. Liliurnar gefa þar ylm, og þar er allrahanda gøfugur ávøxtur fyrer ockar dyrum. Minn vinur! eg hefe geymt handa þer bæde nyann og gamlann ávøxt.

## 8. Capitule.

1. Oh! ad eg mætte finna þig þar úte, minn broder! sem ad sygur minnar módur brióst, og eg mætte kyssa þig, so engenn hædde mig!

2. Eg vil taka þig, og leida þig í minnar módur hús, þar þú skylldur kenna mer: þar villde eg gefa þer ad drecka, af gerdu víne, og af muste minna granata epla.

3. Hans vinstre hønd liggur under mínu høfde, og hans hægre hønd fadmar mig.

4. Eg sære ydur þer dætur Jerusalem! ad þer hvørke uppveked, ne hræred vid mína unnustu, þar til hana siálfa lyster.

5. Hver er sú, sem upp fer af eydemørku, og stydst vid sinn vin? under eplatrenu uppvakte eg þig, þar þín móder hafde fædt þig, þar sem hún lá med þer, hún sem hafde uppaled þig.

6. Settu mig á þitt hiarta sem eitt innsigle, og uppá þinn arm sem armad innsigle, því elskann er

so sterk sem daude, og vandlæted so fast sem helvíte, þeis glædur eru brennande, og einn elldsloge Drottins.

7. So ad mørg vøtn kunna eigi ad slecka elskuna, ne straumarner ad kefia hana. Þó ad madur villde gefa øll audæfe síns huss fyrer elskuna, þá være þad allt einskis verdt.

8. Vor syster er lítel, og hefir engenn brióst, hvad skulum ver gera vorre systur, nær menn vilia tala til hennar?

9. Er hún einn múr, þá vilium ver byggia vígskord af silfre þar uppá: er hún einar dyr, þá vilum ver gera hana fasta med cedrustre.

10. Eg em einn múr, og mín brióst eru sem turn, þar em eg ordenn fyrer hans augum, sem sá ed fridenn finnur.

11. Salomon hefir einn víngard í Baalhamon. Hann gaf vardhalldsmønnunum víngardenn, ad hver af þeim skyllde færa hønum fyrer hans ávøxtu þusund silfurpeninga.

12. Minn víngardur er fyrer mer. Þer, Salomon! heyrer til þusund, enn vardhalldsmønnunum tvø hundrud, ásamt med hans ávøxtum.

13. Þú sem byr í alldengardenum! lát mig heyra þína raust: stallbrædurner athuga þad.

14. Fly þú minn vinur, og ver sem eitt rádyr, eda sem einn úngur hiørtur á jurtafiøllunum.

Ender á Lofkvæde Salomonis.



# Prophetenn Esaias.

## 1. Capitule.

1. Þesse er syn Esaie, Amos sonar, hvera hann sá um Juda og Jerusalem, í tíd Þeirra, Usias, Jothams, Achas, og Ezechias, konganna Juda.

2. Heyred Þer himnar! og Þú jörd! hlusta med eyrunum, Þviad Drottinn hann talar. Eg hefe börn uppfóstrad og upphafed, og Þau eru fallenn frá mer.

3. Nauted Þad Þecker sinn Herra, og asnenn jötu síns Herra, enn Israel Þecker Þad eigi, og mitt fólk skiniar Þad eigi.

4. O vei Þui syndugu fólke! Þui fólke mikellra misgerda, Þess illskufulla sæder, Þeim skadsömu börnum sem yfergefa Drottinn, Þeir ed lasta Þann hinn heilaga í Israel, og ganga á bak sier aptur.

5. Hvad skal ad lemia ydur lengur, fyrst Þer ganged Þui meir afvega? allt höfuded er siúkt, allt hiartad er veikt.

6. Í frá hvirfle allt til ylia, er eigi neitt heilbrygdt á honum, helldur sár, og beniar, og Þrote, sem eigi er samann teingskad, ne umbunded, og eigi helldur med vidsmiöre mykt.

7. Ydart land er í eyde lagt, ydrar borger eru med elldeupp brenndar; Þeir útlendu fortæra ydar akurlende fyrer ydrum augum, og Þau eru eydd, líka sem Þad, er eydelagt er af útlendskum.

8. Enn Þad hvad enn nú er afgangs af dótturenne Zion, Þá er Þad so sem húskorn í víngarde, so sem eitt líted vakthús í graskers garde, sem sá skadur ad foreyddur er.

9. Hefde eigi Drottinn Zebaoth láted nockud líted epter verda af oss, Þá værum ver ordner eins sem Sodoma, og líka sem Gomorra.

10. Heyred ord Drottins Þer höfdingiar af Sodoma! lát Þer í eyrum loda lögmál Guds vors, Þú lydur af Gomorra!

11. Hvar til skal mer fiölldenn ydarra fórnfæringa? seger Drottinn. Eg em mettur af brenne offre hrutanna, og af feitenne alefiarens, og engu lysting hefe eg á blóde uxanna, lambanna, og hafranna.

12. Þá er Þer komed her inn ad birtast fyrer mer, hver krefur slíks af ydarre hende, Þad Þer ganged uppá minn forgard?

13. Færed eigi lengur matoffur so til forgefens, Þad reykelse er mer andstyggd, Þær tunglkomu hátíder og Þvottdagar, á hverum Þer komed tilsamans til mædu og angistar, fæ eg eigi lided.

14. Mín sál hún sturggar vid ydarre tunglkomu helgum og hátídum, Þær eru mer leidar vordnar, eg em Þreyttur Þær ad lída.

15. Og Þó ad Þer útbreided ydrar hendur, Þá byrge eg Þó mín augu fyrer ydur; og Þó ad Þer bided margfalldlega, Þá heyre eg ydur Þó eigi, Þviad ydrar hendur eru fullar af blóde.

16. Þvoed, hreinsed ydur, taked ydra illskubreytne í burt frá mínum augum.

17. Láted af illu. Læred gødt ad gera. Leited epter rettenum. Hialped hinum niburkrickta. Látid hinn fødurlausa rett ske, og stirked eckiunnar málefne.

18. Komed þá, og eigunst løg vid, seger Drottinn. Þó ad ydrar synder seu raudar sem blód, þá skulu þær sniohvítar verda; og þó þær seu raudar sem rós, þá skulu þær þó verda sem ull.

19. Ef ad þer viled mer hlyda, þá skulud þer neyta landsins gæda.

20. Enn ef þer viled þad eigi, og erud óhlydugur, þá skulud þer af sverde uppetner verda. Þviad munnur Drottins hefir sagt þetta.

21. Hvernenn gengur þad til, ad sú trúfasta borgenn er ordenn ad einnre hóru? hún var full rettinda, rettvísenn bygde þar inne, enn nú mordingiar.

22. Þitt silfur er orded ad skume, og þinn dryckur er vatne blandadur.

23. Þíner høfdingiar eru affallner, og samlagsmenn þiofanna. Þeir þiggia giarnann giafer mutur, og leita epter fegiøfum; hinum fødurlausu gera þeir engann rett, og málefned eckiunnar kemur ei fyrer þá.

24. Þar fyrer seger Drottinn, Drottinn Zebaoth! sá megtuge í Israel. O vei! eg mun hugsvala mer á óvinum mínum, og hefna mín á mínum óvinum.

25. Og eg mun snúa minne hende imóte þer, og hreinsa þitt skum hid klárasta, og allt þitt tin í burt taka.

26. Og gefa þer dómara aptur, líka sem ádur fyrre voru, og rádherra, sem í upphafenu. Þá muntu einn stadur rettvísennar, og einn ágætur stadur kallast.

27. Zion hlytur fyrer rettindenn frelsud ad verda, og hennar hiner herteknu fyrer rettlæted.

28. So ad þeir yfertrodslumenn, og synduger verde tilsamans í sundurbrotner, og þeir, ed yfergefa Drottinn, fyrerfarest.

29. Þviad þeir munu til skammar verda yfer þeim eykertrénum sem þer hafed lysting til, og ad skammast ydar yfer þeim jurtagørdunum sem þer útveled.

30. Þá, ed þer munud verda sem ønnur eyk med þurrum laufblødum, og so sem annar jurtagardur fyrer utann vøtn.

31. Þá nær sá sterke mun verda sem annar hør, og hans gerningur sem elldgneiste, og mun so hvertveggia tilsamans uppbrenndt verda, so ad engenn gete útslockt þad.

## 2. Capitule.

1. Þetta er þad hvad Esaias, sonur Amos, hann sá um Juda og Jerusalem.

2. A sídurstum døgum mun þad fiallet sem hús Drottens er, vissulega vera hærra enn øll fiøll, og yfer allar hæder upphafed verda.

3. Og aller heidingiar munu þangad stunda, og margt fólk þangad ganga, og segia: komed, og látum oss fara uppá fialled Drottens, til hússins Guds Jacobs, so þad hann kenne oss sína vegu, og þad ver gøngum í hans stigum. Þviad af Zion mun løgmáled útganga, og ord Drottens af Jerusalem.

4. Og hann mun dæma á medal heidingianna, og straffa margt fólk. Þá munu þeir úr sverdum sínum smída plógjárn, og úr sínum spiótum kornsigde. Þviad enginn þiód mun upphefia neitt sverd

imóte annere, og munu eigi framarmeir læra ad strída.

5. Komed þer nú af húse Jacobs; látum oss ganga í ljóse Drottins.

6. Enn þú hefir þitt fólk, þad hús Jacobs, fara láted, þviad þeir frømdu þad meir enn hiner í uppgaungu sólarennar, og eru daga útvelendur, líka sem Philistei, og gera mørg annarleg børn.

7. Hans land er fullt af silfre og gulle, og fiársióda hans er engenn ende; hans land er fullt med hesta, og hans vagnar eru ótelianleger.

8. Hans land er einnenn fullt af skúrgodum, og verkenn sinna handa þá tilbidia þeir, þad sem þeirra fingur hafa smídad.

9. Þar hneiger sig alþydann fyrer, þar lítillætá sig fyrer yfermennerner, þad sama mun þú þeim eigi fyrergefa.

10. Gack í biarged, og fel þig í jørdunne, fyrer þeirre ognan Drottins, og fyrer hans dádsamlegu tignarvellde.

11. Þviad øll þau háu augu skulu niðurlægd verda, og hverer mikels háttar menn eru, þeir munu hlióta sig ad lægia. Enn Drottinn alleina mun hár vera á þeim tíma.

12. Þviad dagur Drottins Zebaoth mun ganga yfer alla þá drambsømu og háu, og yfer allt þad sem upphafed er, so ad þad niðurlægist.

13. Einnenn yfer alla háa og upphæckada Cedrusvidu í Libanon, og yfer allar eykur í Basan.

14. Yfer øll há fiøll, og yfer allar upphafdar hæder.

15. Yfer alla háa turna, og yfer alla fasta múrvegge.

16. Yfer øll skip í hafenu, og yfer øll kostuleg smíde.

17. So þad sig hlytur ad beygia hvers sem eins manns upphæd, og sig ad lítillæta þeir sem mikelsháttar menn eru. Og Drottinn mun alleinasta hár vera á þeim tíma.

18. Og þeirra afguder munu þá med útgerder vera.

19. Þá munu menn inngánga í biarghellrana, og í fylsne jardarennar, fyrer þeirre ognann Drottins, og fyrer hans dyrdarsamlegu tignarvellde, þá ed hann mun taka sig upp til ad skelfa jørdena.

20. Á þeim tíma mun hver madur í burtkasta sínum silfur og gullskúrgodum, (hver ed þeir høfdu gera láted, ad tilbidia) í holur moldvarpanna og músarbrædra.

21. So ad hann meige inngánga í steinsprungurnar og biargskorurnar, fyrer þeirre ognan Drottins, og fyrer hans dyrdarlegu magtarvellde, þá ed hann mun taka sig upp til ad skelfa jørdena.

22. So víked nú frá mannenum sem hefir andann í nøsunum, þvíat þer vited eigi hvad mikels hann er metenn.

## 3. Capitule.

1. Þvi siá! þad Drottenn, Drottenn Zebaoth mun í burt taka af Jerusalem og Juda allar nægter, alla nægt braudsins, og alla nægt vatnsins.

2. Þá sterku og bardagamennena, yfer dómara, propheta, sannsagnar menn, og ølldunga.

3. Høfudsmenn yfer fimmtíu, og ærlega menn, rádgiafa, og byggna handverks meistara, og vísa mælsku menn.

4. Og eg vil gefa þeim ungmenne til høfdingia, og þeir barndómslegu skulu drotna yfer þeim,

5. Og fólked mun [illegible] hafa hver á ødrum, og hver sem einn á

sínum náunga, og æsku madurenn mun hrokast upp ímóte þeim hinum gamla, og sá værlege ímóte þeim heidarlega.

6. Þá mun hver hondla sinn brodur ut af síns fodurs huse. Þú hefir klædnadenn, ver þú vor hofdinge, hialpa oss í þessare ógæfu!

7. Enn hann mun svara á þeim tíma, og segia: engenn læknir em eg, hverke er þar braud ne klæde í mínu húse: seted mig ei til hofdingia medal fólksins.

8. Þvi od Jerusalem hún hrapar, og Juda liggur þar, med þvi, ad þeirra tunga, og þeirra gerningar eru á móte Drottne, so ad þeir mótstødu veita augum hans tignar velldis.

9. Þeirra yferbragd vitnar um þá, og þeir hrósa af sínum syndum, líka so sem þeir til Sodoma, og þeir skyla þeim eigi. Vei sálum þeirra, þviad þar med koma þeir siálfum ser í alla ólucku!

10. Sieged um þá rettferdugu, ad þeim mune vel vegna, þviad ávartarins sinna verka munu þeir neyta.

11. Enn vei þeim ógudlegum! Þvi þeir eru illskufuller, og þad mun þeim endurgollded verda, líka sem ad þeir hafa forþent til.

12. Born reka epter mínu fólke, og konur drottna yfer þvi. Folk mitt! þiner hugguna menn villa þig, og briota nidur þann gotustígenn þar þu skallt ganga.

13. Enn Drottinn stendur þar til hægre handar, og er uppstigenn til ad dæma lydenn.

14. Og Drottinn kemur til dóms ins medur þeim elstu síns fólks, og medur sínum hofdingum. Þviad þer hafed þann víngard foreydt, og þad ránse af fátækum er í ydru húse.

15. Hvar fyrer nidur þricked þer mínu fólke, og ísundur meled fátækar persónur, segir Drottinn, Drottinn Zebaoth.

16. Og Drottinn hann seger: þar fyrer, þad dætur Zion eru ríkilátar, og ganga med upp reygdum hálse, med forprydddu andlite, bruna framm og hovera, og hafa kostulega skó á sínum fótum,

17. So mun Drottinn hárlausann gera hvirfelenn dotturennar Zion; og Drottenn mun þeirra blygdun opinbera.

18. Á þeim tíma mun Drottinn í burttaka prydena á þeirra kostulegum skoum, eiunenn spennurnar.

19. Speingur, festar, ulslidaspeingur.

20. Húfurnar, silkeskauted edur koppbreimingarnar, snururnar, ylmunar hnottenn, eyrna speingurnar.

21. Hringana, hárflettudu bondinn.

22. Hátídar klædnadenn, kápurnar, skickiurnar, pungana.

23. Speigelinn, fyrerklæded, lindann, helltid.

24. Og þar mun illur daun fyrer sætann ylm vera, og eitt lítelshátttar band fyrer gódann linda, og ber skalle fyrer krusad hár, fyrer sída skickiu þraungur hærusekkur, allt soddánn í stadenn þinnar pryde.

25. Þyn alþyda mun fyrer sverde falla, og þíner bardagamenn í stríde.

26. Og hennar borgarhlid munu syrgia og veina, og hún mun eymdarlega á jordu sitia.

27. So, þad sio konur munu á þeim tíma grípa einn mann, og segia: siálfar vilium ver fæda oss og klæda, ad eins þá láttu oss epter þínu nafne kallast, so þad vor smán verde í burt frá oss tekenn.

## 4. Capitule.

1. A þeim tíma mun kvistur Drottins kær og virduglegur vera, og ávøxtur jardarennar tíguglegur og fagur, hiá þeim sem hiálpleger verda í Israel.

2. Og hver þá epter verdur í Zion, og yfer blífur til Jerusalem, sá mun heilagur kallast, hver sá sem skrifadur er á medal þeirra sem lifa til Jerusalem.

3. Þá mun Drottinn afþvo saurendenn dotturennar Zion, og þá blódskulldena Jerusalem í burt reka frá henne, fyrer andann, sá dæma skal, og einn elld upp tendra.

4. Og Drottinn mun skicka yfer allar byggingar fiallsins Zion, og hvar ed hún er tilsamans søfnud ský og reyk um daga, og þær elldingar ed brenna um nætur. Þviad þar mun ein verndarhlíf vera yfer øllu þvi hvad dyrdarsamlegt er.

5. Og mun ein tialldbúd vera til forskygnis, á deigenum, fyrer hitanum, og eitt hæle og skiól fyrer stormvedrenu og døgenne.

## 5. Capitule.

1. Nú vel! eg vil mínum elskulega kveda eitt kvæde míns fødurbródurs, út af hans víngarde. Minn ástvinur hefir einn víngard í frioſømu takmarke.

2. Og hefir gyrdt íkringum hann, og medur grióte hladed, og rótsett þar inne kostulega vínkvistu. Hann uppbygde einnenn einn stopul, þar inne, og grof eina vínpressu, þar nidur, og vonade, þad hann munde vínber af ser gefa; enn hann gaf framm súr vínber.

3. Dæmed þer nú borgar menn af Jerusalem, og þer men Juda! mille mín og míns víngards.

4. Hvad skylldu menn þá meira gera vid minn víngard, þad eg hefe eigi vid hann gert? hvar fyrer hefir hann þá súr vínber af ser gefed, þá eg vonade hann munde sæt vínber af ser gefa?

5. Nú vel, eg vil kunngera ydur hvad eg vil gera mínum víngarde: hans veggur skal í burt takast, so þad hann foreyddur verde, og hans gardur skal niðurbrotenn verda, so þad hann under fótum trodest.

6. Eg vil hann foreyddann liggia láta, so ad hann verde hverke eriadur, ne upp skorenn, helldur so, ad þar vaxe þyslar og þyrnir. Eg vil skyunum bióda, ad þau døgge þar ei yfer.

7. Enn víngardur Drottins Zebaoth er Israels hús, og þeir menn Juda hans ástudleg plantan. Hann vonade epter rettenum, siá þu! þá var þar febráttur, epter rettlætenu, siá þú! þá var þar kløgumál.

8. Vei þeim sem samann draga eitt hús til annars, og leggia einn akur til annars, þangad til ad þar er eigi meira rúm til, so ad þer einsamler eignest landed.

9. Þad sama er fyrer eyrum Drottins Zebaoth. Hvad gyllder, ef ad þau enu mørgu húsenn skulu eigi í eyde leggiast, og þau hinu miklu og føgru standa í eyde?

10. Þviad tín akurlønd víngardsins skulu eigi gefa nema eina skiólu, og eitt trog sædis skal gefa ad eins einn mæleask.

11. Vei þeim sem snemma uppstanda á morgna til ad stunda uppá dryckiuskap, og sitia allt til nætur so ad þeim hitne af vínenu.

12. Og hafa hørpur, gígiur, bumbur, pípur og vín í sínum gestabodum, og gæta eigi ad þvi verke Drottins, og hafa enga gætslu á hans handaverkum.

13. Þar fyrer mun mitt fólk ofyrersyniu hlióta herleidt ad verda, og þess villdarmenn hungur ad þola, og þess alþydu múgur þorsta líba.

14. Þar fyrer hefir helvíted sálunne vídt í sundursleiged, og gynenu upplokeb an als máta, so ad nidur fare bæde þeirra villdarmenn og alþydu múgur, bæde þeirra enu ríku og so gladværu.

15. Ad hver sem einn hliote sig nidur ad beygia, og þad hver sem einu l tellættur verde, og þad augu hrambl ótra nidurlægd virde.

16 Enn Drottinn Zebaoth uppheféft í rettindunum, og Gud sá hinn heilage helgadur verde í rettlætenu.

17. Þá munu lombinn gresia ser í þeirra stad, og hiner útiendu munu næra sig í eydemorkum feitingiannc.

18. Vei þeim sem samann reyra sig med lygennar bondum, rangt ad gora, og med bondum vagnanna til ad syndga, og segia:

19. Lát snart og brádlega koma hans verk, so ad ver siáum þad: Láted fara og framm koma rádagerd hins heilaga í Jsrael, so ad ver verdum varer vid þad!

20. Vei þeim, hverer ed kalla hid vonda godt, og þad hid goda vondt, þeir ed af myrkrunum géra lióſed, og út af lióſenu myrkred, þeir ed gera surt af sætu, og sæt af sætu hid súra.

21. Vei þeim, hverer í biá siálfum ser eru víser, og hallda sig siálfa forsiála.

22. Vei þeim, sem kappar eru vín ad drecka, og stridsmenn til dryckiuskapar.

23. Þeir sem segia þá ógudlegu rett ad hafa, fyrer segiafa saker, og rettarfarenu hinna rettvísu í burt snúa frá þeim.

24. Þar fyrer, líka so sem þad elldslogenn foreyder stráenu, og logenn agnernar í burt tekur, so mun þeirra rót forrotna, og þeirra greiner uppsliúga líka sem annad molldar ryk. Þviad þeir forakta logmal Drottins Zebaoth, og lasta rædu hins heilaga í Jsrael.

25. Fyrer þad sama er reide Drottins grimm ordenn yfer hans fólke, og breider sína hond út yfer þá, og leggur á þá, so þad fiollenn skiálfa, og þeirra líkamer erú eins so sem saurenn á strætum úte. Og í ollu þessu þá lætur hans reide enn eigi af, helldur er hans hofud enn nú útrett.

26. Þviad hann mun einu strídsmerke útsleygia í fiarlægd medal heidingia, og þá hina somu hingad locka í frá enda jardarennar.

27. Og siá þu! ad skiott, og skyndelega, þá koma þeir hingad, og þar er engenn þreyttur ne veikur medal þeirra: engann þeirra syfiar ne sæker svefn, og engum þeirra losnar bellte frá lendum, og eigi eins þeirra skó þveingur slitnar.

28. Þeirra skeyte eru hvoss, og aller þeirra bogar eru uppspannader. Hófar þeirra hesta eru sem hellusteinar; hiólenn þeirra vagna so sem stormvedr.

29. Þeir grenia sem Leon, og so sem ung Leon þá grenia þeir; þeir munu frammbruna, og hersánged grípa, og þad á burt flytia, so ad engeyn sær þvi fordad.

30. Og á þeim tíma munu þeir dynia yfer þá, so sem siór. Nær ed landed verdur álited, siá þu! ad þá er þad myrkt af sorgum, og liósed skín eigi meir ofan yfer þá.

## 6. Capitule.

1. A þvi árenu þegar Usias kongur andadest, sá eg Drottinn sitia uppá einum háfum og upphøfdum stóle, og falldur hans klæda uppfyllde mústered.

2. Seraphim stódu yfer hønum; hver þeirra hafde sex vænger: med tveimur huldu þeir sína fætur, og med tveimur flugu þeir.

3. Og hver kallade til annars, og sagde: heilagur! heilagur! heilagur! er Drottinn Zebaoth! øll lønd eru full hans dyrdar!

4. So ad dróttartren skulfu af raust þeirra kalls, og húsed vard fullt af reyk.

5. Þá sagde eg: vei mer, eg forgeng! þviad eg hefe saurugar varer, og by á medal þess fólks, sem hefir saurugar varer, þviad eg hefe þann kongenn Drottenn Zebaoth sed med mínum augum.

6. Þá flaug einn þeirra Seraphim til mín, og hafde eitt glóande kol í hendenne, hvert ed hann med tøngenne tók af alltarinu.

7. Og ahrærde minn munn, og sagde: siá þú! her eru þínar varer med áhrærdar, so ad þínar misgerder verde í frá þer teknar, og þínar synder seu forlíktar.

8. Og eg heyrde rødd Drottins, þad hann sagde: hvern skal eg útsenda? hver vill vor sendebóde vera? enn eg sagde: her em eg, send þú mig.

9. Og hann sagde: far þú af stad, og seg þú til fólks þessa: heyred þad, og skiled þad eigi, siáed þad, og fornlerked þad eigi.

10. Herd þú hiarta folks þessa, og lát þeirra eyru þyckheyrd ver da, forblinda þeirra augu, so ad þeir sine eigi med sínum augum, ne heyre med sínum eyrum, ne skile þad med sínu hiarta, og snúest, og verde heilbrigder.

11. Enn eg sagde: Drottinn! hversu lenge? hann sagde: þangad, til ad borgernar verda foreyddar, fyrer utann innbyggiara, og húsenn fólklaus, og þad landed liggi med øllu í eyde.

12. Þviad Drottinn mun fólked í siárlægd burt láta, so þad landed foreydt verde.

13. Þó skal enn nú sá tíunde hlutur þar inne vera, þviad þad mun í burt fært og foreydt verda, líka sem sunnur eyk og lindartre, hverar ad hafa stofnenn, þó ad þeirra laufblød verde afskekenn; eitt heilagt sæde mun soddann stofn vera.

## 7. Capitule.

1. Þad skede í tíd Achas, sonar Jotham, sonar Usiæ, kongsins í Juda, ad Rezin, kongurenn í Syria, og Pekah, sonur Remalia, Israels kongur, fóru upp til Jerusalem, til ad berast ímóte henne, enn eigi gátu þeir hana yfer unned.

2. Þá vard þad húse Davids kunngiert: þeir af Syria forláta sig uppá Ephraim! Þá skalf hiartad í hønum, og hiartad hans folks, líka sem þá tren í skogenum skiálfa af vinde.

3. Enn Drottinn sagde til Esaja: gack þú út ímóte Achas, þú og þinn sonur Sear Jasub, til enda vatnsrennunnar, vid þad efsta fiskekyked, út vid veigenn hiá akrenum litarans,

4. Og seg til hans: vara þig og vert kyrr; hrædst þú eigi, og þitt hiarta se óttalaust, fyrer þessum tveimur rinkandé kolbrøndum, sem er fyrer reide Rezins, og þeirra af Syria, og sonar Remalia.

5. Ad þeir af Syria, med Ephraim, og syne Remalia, hafa eina vonda rádagerd samsett imóte þer, og segia:

6. Ver vilum uppfara til Juda, vekia þá upp, skipta þeim med oss, og setia son Tabeals til kongs þar inne.

7. Þvi so seger Drottinn, Drottinn! Þad skal eigi so standa, ne so verda.

8. Helldur líka sem þad Damascus er høfud í Syria, so skal Rezin høfud vera til Damasco. Og innann simm og sextíu ára þá skal þad med Ephraim útgert vera, so ad þeir skulu eigi lengur eitt folk vera.

9. Og líka sem þad Samaria er høfud í Ephraim, so skal sonur Remalia høfud vera í Samaria. Ef þer trúed eigi, munud þer eigi vidstandaft.

10. Og Drottinn talade enn aptur til Achas, og sagde:

11. Kref þú þer eins teikns af Drottne Gude þinum, hvert þad er nidre í underdiúpunum, edur á hædum uppe.

12. Enn Achas sagde: eigi vil eg þess kresia, uppá þad eg freiste eigi Drottins.

13. Þá sagde hann: nú vel, þar fyrer heyred þer af húse Davids, hvert er ydur þad forlíted, ad þer gered mønnunum angur, ad þer hlioted einnenn ad angra minn Gud?

14. Fyrer þá skulld mun Drottinn siálfur gefa ydur eitt teikn. Siá þú, einn jungfrú er ólett, og mun einn son fæda, hann mun hún kalla Immanuel,

15. Smiørs og húnángs mun hann neyta, só ad hann kunne ad burtkasta þvi vonda, og útvelia hid góda.]

16. Þviad fyrr enn þad sveinnenn lærer ad burtkasta þvi vonda, og útvelia hid góda, þá mun þad landed, fyrer hveru þú hrædist, yfergefed verda af sínum tveimur kongum.

17. Enn Drottinn mun yfer þig, yfer þitt fólk, yfer þins fødurs hús, þá daga koma láta, hverer þad eigi hafa komed í frá þeim tíma þad Ephraim skilde sig í burt frá Juda, fyrer þann kongenn til Assyria.

18. Þviad á þeim tíma mun Drottinn blystra ad flugunum vid endann vatnanna í Egyptalande, og ad biflugunum í landenu Assur.

19. So ad þær kome, og legge sig allar nidur vid þá þurru lækena, og í biargskorurnar, og inn í alla vidarrunna, og í alla buska.

20. A þeim sama tíma mun Drottinn afraka háred af høfdenu og fótunum, og burttaka skegged med einum leigdum hárknife, sem er, fyrer þá sem eru hinumeigenn vatnsins, sem er fyrer kongenn af Assyria.

21. A þeim sama tíma mun einn madur ala fiølda kúa, og tvennar hiarder.

22. Og mun hafa so margt ad miolka, þad hann mun smiørs neyta, þvi hver hann blífur epter í landenu, sá mun smiør og hunáng eta.

23. Þviad þad mun ske á þeim tíma, ad þar hvar ed nú standa þusund víntre, þusund silfurpeninga verd, þar munu vera þyrnir og þistlar.

24. So ad menn meige med skeytum og bogum þangad ganga. Þviad í øllu landenu munu þyrnir og þistlar vera.

25. So þad tilallra þeirra fiallanna sem vant var ad eria og plæ-

g'a umhverfis; þá kunna menn
einnenn eigi af koma, fyrer hræd-
slu þyrnanna og þistlanna, helldur
munu þar urar hafder, og menn
munu láta faude þar yfer renna.
26. Og Drottinn sagde til mín:
tak þer stórt bref, og skrifa þar upp-
á með mannsins stíl, ræned skiótt!
skipted skiott!
27. Og eg tók til mín tvo trú-
lynda votta, prestenn Uriam, og
Sachariam, son Jeberechia.
28. Og geck til einnrar spádóms-
konu, hún vard ólett, og fædde son
og Drottinn sagde til mín: kal-
la þú hann; Ræned skiótt, skipted
skiott!
29. Þviad ádur enn þad sveinn-
enn kann ad kalla, kære fader! kæra
móder! skal magtenn Damascus,
og herfánged Samariæ burt teked
verda, fyrer kongenn til Assyria.
30. Og Drottinn talade enn
framar vid mig, og sagde:
31. Af því, ad þetta fólk slitur
vatned til Siloah, sem hófliga
rennur, og treyster Rezin, og sync
Remalia.
32. Siá! þar fyrer mun Drott-
inn yfer þá koma láta straung og
mørg vøtn flódsins, sem er kongenn
af Assyria, og alla hans vegsemd,
so þad hann mun fara yfer alla
þeirra læke, og ganga yfer alla
þeirra árbacka.
33. Og þeir munu innbriótast í
Juda, sveima þar, og yfer um fara,
allt þar til ad þad tekur þeim under
høku, og þeir munu sína vænge út-
breida, só ad þeir fylle þitt land, ó
Immanuel! so vídt sem þad er til.

## 8. Capitule.

1. Vered iller, þer lyder, og renn-
ed þó undan. Heyred þer þad aller
þer sem í fiarlægum løndum erud.
Herklæded ydur og flyed þó undan,
búed ydur út, og vered þó á flótta
rekner.
2. ÁlyktED eina rádagerd, og þar
verde þó ecke af: kafed samtok, enn
þad hafe þó engann stad, þvi her
er Immanuel.
3. Þvi so seger Drottinn til mín:
líka sem ad tæke hann í hønd mer,
og segde mer til, þad eg skyllde ei
ganga á vegum fólks þessa, og sag-
de:
4. Eigi skulud þer segia, sótt-
måle, þetta fólk kann af engu ad
segia nema sáttmála: vered eigi.
So óttaslegner, og eigi so kvída-
samer, sem þeir eru.
5. Helldur helged Drottinn Ze-
baoth: láted hann verá ydra hræd-
slu og ótta.
6. Þá mun hann ydur til helg-
unar vera, enn einn ásteitingar
steinn, og einn hneixlunar hella
þeim tveimur húsum Israels, til
einnrar snøru og brøpunar þeim
borgarmønnum til Jerusalem.
7. So þad marger af þeim reke
sig þar á, falle, sundurmerest, bund-
ner og herteknir verde.
8. Bitt tilsamans vitnisbúrd-
enn, og innsigla løgmáled mínum
læresveinum.
9. Þviad eg vona uppá Drott-
inn, hver ed sitt andlit hefir til-
byrgt fyrer húse Jacobs, enn eg bíd
epter hønum.
10. Siá þú! her em eg, og þau
børn sem Drottinn hefir mer gefed,
til teikns og stórmerkis í Israel, af
Drottne Zebaoth, hver ed bygger
uppá fiallenu Zion.
11. Enn nær ed þeir segia til
ydar: þer verded ad spyria sann-
sagnar mennena ad, og hina sem
af teiknum ráda, hverer ed þvagla
og þræta (þá seged) skal eigi fólked
spyria sinn Gud, edur er þad rett-

ara, ad spyria hlna daudu fyrer þá hina lifendu? já, epter løgmálenu og vitnisbúrdenum.

12. Enn ef þeir segia eigi þad sama, þá munu þeir eigi morgunroðed hafa.

13. Helldur munu þeir fara umkring í landenu hardt slegner og húngrader. Enn nær ed þeir líða nú hungur munu þeir reidast, og bølva sínum konge, og sínum Gude.

14. Og munu gapa upp yfer sig, og líta nidur fyrer sig á jørdena, og engann hlut finna utann harmkvæle og myrkur.

15. Þviad þeir eru mædder í harmkvælunum, og fara viller í myrkrenu.

16. Þviad þar mun vel ein ønnur mæda vera sem þeim gerer mein, helldur enn sú sem á þeim fyrre tímonum var, þá ed þad geck so hóglega til í landenu Sebulon, og og í landenu Naphtali, og þar epter vard enn þyngra, vid veigenn siófarins, þessumeigenn Jordanar, í þeirre heidnu Galilea.

## 9. Capitule.

1. Þad fólk sem geck í myrkrunum ser eitt liós miked, og yfer þeim sem byggia í myrkru lande skín þad skært.

2. Þú fiølgar þá enn heidnu, þar med eykur þú eigi gledena. Enn fyrer þer munu menn glediast sig, líka sem ad menn eru glader á kornskeru tímanum, líka sem ad menn eru glader, nær ed menn útskipta herfánge.

3. Þviad þú hefir ísundur broted oked þeirra byrda, og vøndenn þeirra herda, og stafenn þeirra sem þá framm dreif, líka sem í tíd Madians.

4. Þviad allt Stríd med stiriølld, og blódugum ræflum, mun brennt og med elldе foreydt verda.

5. Þviad oss er eitt barn fædt, einn sonur er oss gefenn, hvers høfdingiadómur ad er á hans herdum. Og hann heiter, Undarlegur, ród, kraptur, hetia, eylífur fader, fridar høfdinge.

6. So ad hans høfdingiadómur verde mikell, og á fridnum engenn ender, á þeim stólnum Davids, og hans kongsríke, ad hann tilreide þad og esl[?], medur dóme og rettvíse hedann í frá, og ad eylífu. Slíkt mun gera vandlæting Drottins Zebaoth.

7. Drottinn hefir eitt ord útsendt í Jacob, og þad er nidurfalled í Israel.

8. So ad þad sama skal formerkia allt þad fólk Ephraim, og þeir innbyggiarar til Samaria, þeir ed segia í metnade og stolltu sinne.

9. Tiguls[t]einar eru nidurfallner, enn ver vilum med þeim høggnum steinum upp aptur byggia. Morbertre eru afhøggenn, þá vilum ver cedrusvidu þar í stadenn setia.

10. Þviad Drottinn mun herlid Rezins forhefia imóte þeim, og þeirra óvine tilsamans draga.

11. Þá Syrlendsku að framann, og þá Philisteos á bak til, so ad þeir ete Israel med fullum munne. Í ollu þessu þá lætur hans reide enn ei af, hans hønd er enn nú útrett.

12. So snyst fólked og eigi ad helldur til hans, sem þad slær, og skeyter eigi um Drottinn Zebaoth.

13. Þar fyrer mun Drottinn burthøgga af Israel bæde hofuded og halann, bæde kvistenn og tred, á einum deige.

14. Hiner gømlu heidurs menn eru høfuded, enn þeir spámenn, sem lyge kenna, eru halenn.

15. Þvíað leidtogar fólks þessa eru tálsmenn, og þeir ed láta leidtoga sig eru glataðer.

16. Þar fyrer kann Drottinn eigi ad glediast yfer þeirra ýngismønnum, ne þeirra føðurløysingum og ecknum miskunsamur ad vera. Þvíad allerjamann eru þeir hræsnarar og illmenne, og allra munnur talar heimsku. Í øllu þessu lætur hans reide eigi af, hans hønd er enn nú útrett.

17. Þvíad það ógudlegá athæfed er upptendrad líka sem elldur, og foreyder þyrnum og þystlum, og logar sví í þickum skoge, og gefur af sér háfann reyk.

18. Þvíad í reide Drottins Zebaoth er landed formyrkvað, so það fólked er líka sem annar ellds matur, engenn væger ødrum.

19. Ef ræna þeir til hægre handar, þá lída þeir hungur; matist þeir til vinstre handar, þá verda þeir ei saddir.

20. Hver einn etur kiøted síns armleggs, Manasses Ephraim, Ephraim Manasse, og þeir báder til samans imóte Juda. Í øllu þessu lætur hans reide ei af, hans hønd er enn nú útrett.

## 10. Capitule.

1. Vei þeim skriftlærdu! sem gera røng løg, og þeim ed ranga úrskurde skrifa.

2. So ad þeir halle málefnum fátækra, og yfergang veite í rettarfare litelmagnanna á medal míns fólks, so þad eckiurnar hliota þeirra ránse, og føðurleysingiarner þeirra herfáng ed vera.

3. Hvad viled þer tilgera á þeim deige vitiunarennar og óluckunnar, sem af fiarlægd kemur? til hvers viled þer flya hiálpar ad leita? og hvar viled þer ydra vegsemd láta.

4. So ad hún verde eigi nidurbeygd medal hinna herteknu, og falle medal þeirra sem eru ihelslegner? í øllu þessu lætur hans reide enn ei af, hans hønd er enn nú útrett.

5. O vei Assur! sem er vøndur minnar reide, og hans hønd er stafur minnar bræde.

6. Eg vil útsenda hann imóte einne hræsnes þiod, og skipa hønum imóte því fólke minnar reide, so ad hann ræne það, og útskipte því, og under fótum trode það, so sem annann saur á strætum.

7. Þó ad hann þeinke það eigi so, og hans hiarta hugleide það eigi á þann veg. Helldur er hans hiarta reidubúed til ad afmá, og foreyda eigi allfáu fólke.

8. Þvíad hann seger:

9. Hvert eru míner høfdingiar eigi aller kongar? er eigi Calno so sem Charchemis? hvert er Hamath eigi so sem Arpad? er eigi Samaria líka sem Damascus?

10. Líka so sem það mín hønd hefir funded kongaríkenn afgudanna, hverra afguder þó øflugre voru enn þeir sem í Jerusalem og Samaria eru.

11. Hvert skyllde eg eigi gera vid Jerusalem, og hennar afgude, líka sem það eg hefe gert vid Samariam og hennar afgude?

12. Enn nær ed Drottenn hefir frammkvæmt øll sín verk á fiallenu Zion og til Jerusalem, þá mun eg vitia ávartarins þess drambsama kongsins til Assyria, og prydennar hans dramblátra augna.

13. Þar fyrer, ad hann seger: eg hefe þetta frammkvæmt fyrer krapt minna handa, og med mínum vísdóme, þvíad eg em hyggenn:

Eg hefe løndunum á annann veg ísundur-skipt, og þeirra aftektum rænt, og líka sem einn volldugur madur jnnbyggiarana ad velle lagt

14. Og min hønd hefir funded fólked líka sem annad fugls hreidur, so þad eg hefe øllum løndum tilsamans safnad, líka sem þá egg safnast, þau ed epterskilenn eru, so ad engenn hrærde eina fiødur, edr gryspade, eda andade á móte mer.

15. Hvert fær øxenn nockud hrósad sier imóte þeim sem med henne høggur? edur søgenn trássad ímóte þeim sem med henne sagar? líka sem ed sá má hrósa, sem stafenn bæde ber og upp hefur, og ber hann so lettelega sem være hann ecke tre.

16. Þar fyrer mun Drottinn, Drottinn Zebaoth! senda megurd á medal hans feitingia, og hans vegsemd mun hann upptendra, so þad hún mun brenna líka sem elldur?

17. Og liósed í Jsrael mun vera einn elldur, og hans hinn heilage mun einn elldsloge vera, og mun hans þyrna og þystla uppbrenna og foreyda á einum deige.

18. Og sú fegurdenn hans skógar og vídlendis skal at engu verda, í frá sálunne allt uppá hollded. Og mun so foreydast og burt hverfa.

19. Ad þau tren hans skógar, sem epter erú, meige talenn verda, og eitt barn meige þau uppskrifa.

20. A þeim døgum munu þeir sem epter eru ordner í Jsrael, og þeir sem undann komast af húse Jacobs, treysta eigi lengur uppá þann sem á þá leggur, helldur mu nu þeir treysta uppá Drottinn þann heilaga í Jsrael. í sannleika.

21. Þeir sem epter eru vordner munu snuast: já! þeir sem yfer blífa í Jacob, til Guds hins øfluga.

22. Þvi þó þitt fólk, ó Jsrael! se líka sem siáfar sandur, þá skulu þó þeir umvender verda, sem afgangs eru af þvi enn sama. Þviad þegar fordiørfunenn er stillt, þá mun yfersliótanlegt rettlæte koma.

23. Þviad Drottinn Drottinn Zebaoth! skal eina fordiørfun ganga láta, enn stilla þá sømu þó í øllu landenu.

24. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn Zebaoth: ótast þu eigi mitt fólk! þad sem til Zion byager, fyrer Assur. Hann mun þig med stafnum slá, og sinn staf uppheffia imóte þer, líka sem skede á Egyptalande.

25. Þviad þad erum eina miøg stutta stund ad gera. Þá mun min þyckia og min reide yfer þeirra misgerdum einn enda hafa.

26. Þá mun Drottinn Zebaoth uppvekia yfer hann eina svipu, líka sem í slagenu Madian, á biargenu Oreb, og hann mun sinn staf, þann ed hann í hafenu hafde, uppheffia, líka sem á Egyptalande.

27. A þeim tíma mun hans byrde af þínum herdum víkia hlióta, og hans ánaudar ok af þínum hálse, þviad oked mun af feite ísundur morkna.

28. Hann kemur (lát sem þad so se) til Aiath, hann fer ígegnum Migron, hann velur sitt herfólk til Michmas.

29. Þeir fara framm hiá vorum herbúdum í Geba. Rama hún skelfest vid: Gibeath Sauls í burt flyr.

30. Þú dotter Gallim! æptu hátt, hygg ad Laisa, þu hin fátæka Anathoth.

31. Madmena víkur undann. Þeir borgarar til Gebin efla stirk.

32. Kann vera menn blífe einn dag til Nob, þá mun hann hræra

hønd sína imóte fiallenu dætranna
Zion, og imóte Jerusalems hæð.
33. Enn siá þú! það Drottinn,
Drottinn Zebaoth mun greinernar
með valldе afsníða, og það, hvað
hátt uppstendur, stytta.
34. So að það, sem hátt er, mun
niður lægt verða; og sá hinn þicke
skogurenn mun meður járne um
koll høggenn verða, og Libanon
mun falla fyrer þann hinn megtu-
ga.

## 11. Capitule.

1. Og þar mun einn vøndur upp-
renna af kyne Jesse, og einn kvistur
af hans rót mun ávøxt færa.
2. Yfer hverum það hvíla mun
ande Drottins: ande viiskunnar og
skilningsins, ande ráðsins og styrk-
leiksins, ande þeckingarennar og
ótta Drottins.
3. Og hans ylmur mun verða í
ótta Drottins, hann mun eigi dæ-
ma epter því sem hans augu siá, og
eigi straffa epter því sem hans eyru
heyra til.
4. Helldur mun hann með rett-
víse dæma hina fátæku, og meður
dóme hyrta þá aumu í landenu.
Og hann mun slá jørðina með ven-
de síns muns, og með anda sínna
vara íhelslá hina ógudlegu.
5. Rettlæted mun vera bellte
hans lenda, og trúenn lindenn
hans nyrna.]
6. Ulfarner munu byggia hiá
lømbunum, og Pardus dyrenn mu-
nu liggia hiá høfrunum, eitt smá-
barn mun kálfa og ung Leon og
ale fe tilsamans reka.
7. Kyr og byrner munu í grat-
haga ganga, so það þeirra ungar
hvílest hver hiá øðrum, og Leon-
enn munu hey éta sem naut.
8. Og eitt brióstbarn mun leika
ser yfer smugu nøðrunnar, og það
barn af brióste er vaned mun stinga
sínne hende í bæled Basilisci.
9. Og menn munu hverge skaða
ne forbiørfun gera á mínu heiløgu
fialle. Þvíað landeð er fullt af
þekkingu Drottins, líka sem að
være það huleð með vøtnum siáf-
arins.
10. Og það mun ske á þeim tíma,
það rótenn Jesse, sem stendur fól-
kenu til stríðsmerkis, að epter hon-
um spyria heiðnar þióðer, og hans
hvíld mun vera dyrdleg.
11. Og á þeim tíma mun Drott-
inn í annað sinn sína hønd útretta,
so að hann fáe það sem afgangs er
síns fólks, það epter er orðeð frá
þeim í Assyria, Egyptíkum, Pa-
thros, Mórlendskum, Elamitum,
Sinear, Hamath, og frá eyunum
siáfarins.
12. Og hann mun eitt stríðs-
merke uppsetia meðal heiðenna
þióða, og samansafna þeim útreckn-
um af Israel, og hina ísundur
dreyfðu af Juda tilsamans leiða,
úr þeim fiórum áttum jarðarenn-
ar.
13. Og sá óvinskapurenn við
Ephraim mun enda taka, og þeir
óviner Juda munu afmáðer verða,
so það Ephraim hate eigi Juda, og
það Juda se eigi imóte Ephraim.
14. Enn þeim Philisteis imóte
vestrenu munu þeir á háls leggiast,
og ræna þá alla sem imóte austrenu
búa: Edom og Moab munu útbrei-
da sínar hendur á móte þeim, børn
Ammons munu hlydug vera.
15. Og Drottinn mun fyrer-
mæla straumum siáfarins í Egyp-
talande, og hann mun sína hønd
láta yfergánga vatneð með sínum
sterkum vinde, og slá þá sio vatns-
straumana, so að menn meige þar
með skóum ígegnum ganga.
16. Og hann mun vegurenn

vera þeim sem epter eru af hans fólke, þad epter er orded af þeim Assyriis, líka sem þad skede Israel á þeim tíma, þá þeir útgengu af Egyptalande.

## 12. Capitule.

1. Á þeim sama tíma muntu segia: eg þacka þer Drottinn! ad þú varst reidur uppá mig, og þad þín reide hefir umvendt sier, og hugsvalad mer.

2. Siá! Gud er minn hiálpare; eg em orruggur og óttast eigi, þvíad Gud Drottinn er minn styrkur, og minn lofpsalmur, og mitt hiálpræde.

3. Þer munud med fagnade vatned uppausa úr hiálpræd isins brunnum.

4. Og munud segia á þeim sama tíma: þacked þer Drottne; prediked hans nafn; gered kunna med al fólksins hans gerninga; kunngered hversu hans nafn er so hátt.

5. Lofsynged Drottne, þvíad hann hefir audsynt sig dyrdlegann, þad se kunnugt í øllum løndum.

6. Syng lof, og vert glød þú sem innebygger í Zion, þvíad Israel hinn heilage er mikell hiá þer.

## 13. Capitule.

1. Þesse er byrdenn yfer Babylon, hvera Esaias, sonur Amos hefir sed.

2. Seted upp merked uppá háfiøllunum: kalled fast imóte henne: slaed upp hendenne: láted inndraga um hlidenn høfdingiana.

3. Eg hefe mínum heiløgum boded, og mína øfluga kallad til minnar reide, þeir ed gladværer érú í minne vegsemd.

4. Þar er eitt kall mikels fiølda á fiøllunum, líka sem være þar grúi fólks. Eitt hróp líka sem einn hljóms, af samansøfnudum tongaríkum heidingianna.

5. Drottinn Zebaoth byr einn her út til bardaga, hver ed út af fiarlægum løndum mun koma í frá enda himensins. Iá Drottinn siálfur medur herlide sinnar reide, til ad fordiarfa allt landed.

6. Kveined! þvíad dagur Drottins er nálægur, hann kemur líka sem ønnur foreydslá af hinum almáttuga.

7. Þar fyrer tregast upp allra hendur, og allra manna hiørtu munu huglaus vera.

8. Skelfing, angist og harmkvæle mun yfer þá koma; þeir munu hugsiuker vera líka sem hún ed fæda skal; hver þeirra mun hrædast annann; þeirra andlit munu raud verda sem elldur.

9. Þvíad siá þú! dagur Drottins kemur ógurlegur, reidigligur, og grimmligur, til ad foreyda landed, og ad afmá hina syndugu út þadann.

10. Þvíad stiørnurnar á himnenum, og hans Orion skína ei skært: solenn gengur myrk upp, og tungled hefir eigi sitt liós.

11. Eg vil jardarkringlunnar vitia, vegna sinnar illgyrne, og þeirra ógudlegu fyrer sinnar ódygdar saker. Og eg vil einn enda gera metnadarens hinna ríkelátu, og dramblætid hinna volldugu nidur lægia.

12. So ad einn karlmadur skal dyrkeyptare vera helldur enn kostulegt gull, og einn madur meira verdur, enn eitt stycke gulls af Ophir.

13. Þar fyrer vil eg hræra himenenn, so þad jørdenn skal úr sínum stad hrærast af þeirre grimmdar bræde Drottins Zeba-

ot̄h, og fyrer þeim deigenum hans reide.

14. Og hún skal verda sem ein jögud skógar geit, og sem ein hiørd án hyrders, so þad hver einn snúe aptur til sírs fólks, og hver einn mun flya í sitt land.

15. Af þvi, ad hver sem þar finnst mun ihel sleigenn verda, og hver hann er þar hiá, sá mun fyrer sverde falla.

16. Þeirra born skulu einnenn þeim áſiáande sundur marenn verda; þeirra heimele rænt, og þeirra kvinnur skammadar.

17. Þviad siá þú! eg vil þá Medos uppvekia yfer þá, hverer ad silfre eigi leita, ne epter neinu gulle spyria.

18. Helldur þeirra yngesmenn med bogum ihel skióta, og yfer lifs áverte miskunarlauser eru, og ei úngbornum vægia.

19. Þannenn skal Babylon, hin fegursta medal kongaríkianna, hin dyrdlega prætenn í Chaldea, umturnud verda af Gude, líka so sem Sodoma og Gomorra.

20. So ad þar skal ei leingur búed verda, ne nockur þar blífa ad eylífu, so þad einnenn þeir í Arabia sláe þar engum tiølldum upp, og enger hiardar geymslu menn hafe þar nein fi rhús.

21. Helldur mun Zihim hreidra sig þar, og þeirra hús af Ohim full vera, og strutsfuglar munu þar byggia, og draugar munu þar dansa.

22. Og uglur munu syngia í þeirra høllum, og eytur drekar í þeirra lystelegum slotum.

23. Þeirra tíme mun ad mestu komenn, og þeirra dagar skulu eigi undann dragast.

24. Þviad Drottinn mun miskna sig yfer Jacob, og Israel enn nú frammveigið útvelia, og þá innsetia í þeirra land, og hiner framande munu nálægia sig til þeirra, og samteingia sig þvi húse Jacobs.

25. Og fólked mun taka vid þeim, og færa þá til sinna stada, so þad hús Israels mun eignast þá í lande Drottins, ser til þræla og ambátta. Og munu þá hertekna hallda, af hverum ad þeir hertekner voru, og drottna yfer þeim sem þá þiádu.

## 14. Capitule.

1. Og á þeim tíma, nær ed Drottinn gefir þer huíld af þinne eymd og armædu, og af þeirre hardre þiónustu sem þú varst í.

2. Þá mun þú soddann ordskvid hafa imóte kongenum til Babylon, og segia: hvernenn er þad so med øllu útgert um þann fordiarfarann, og þad skattgiallded hefir enda?

3. Drottinn hefir þann vondenn þeſs ógudlega ísundur broted, þann vondenn yfer drottnarans.

4. Sem í reide sló óaflátanlega fólked, og med grimmd drottnade yfer heidingiunum, og offokte miskunarlaust.

5. Nú hvílest þó øll verølldenn, og er um kirt, og fagnar gledelega.

6. Grenetreit gledia sig einnenn yfer þer, og þeir cedrus viderner á Libanon (og segia): þad fyrst þú liggur, þá kemur engenn upp hingad, sá ed oſs høgge nidur.

7. Þad helvíted þar under nidra skelfest fyrer þer, þá þú kemur þér imóte; þad uppvekur þér þá hina dauðu, alla kiárnhafra veralldarennar, og skipar øllum kongum heidenna þióda ad standa upp af sínum stólum.

8. So ad þeir aller, hver epter

annann tala og segia til þin: Þu ert og einnenn nidursleigenn, lika sem ver, og þad gengur þer lika sem. oss.

9. Þinn metnadur er nidur farenn til helvitis, og saunghlioded þinnar hørpu; mølurenn mun vera þin underdyna, og madkarner þin ábreida.

10. Hvernenn erþu af himne ofann dottenn? Þu hin fagra morgunstiarna! hvernenn erþu til jardar fallenn? Þu sem veikter heidingiana!

11. Þu þeinkter þó i þinu hiarta: eg vil uppstiga i himenenn, og forhefia mitt tignar sæte yfer stiørnur Guds: eg vil setia mig uppá fialled samkundunnar, vid þá hlidena móte nordrenu.

12. Eg vil fara yfer þau háu skyenn, og likur verda þeim allra hæsta.

13. Já, til helvitis fer þu! til grafarennar sidu.

14. Hver þig ser, sá mun skoda þig og lita til þin, og segia: hvert er þad só madurenn sem skók jørdena, og skelfde kongarikenn?

15. Hver ed verølldena foreydde, og borgernar þar inne nidurbraut, og gaf eigi sina fanga lausa?

16. Ad sønnu; aller kongar heidenna þióda tilsamans liggia, þó med heidre, hver i sinu huse.

17. Enn þu ert rekenn af þinne grøf, so sem fyrerlitenn kvistur, lika sem einn ræfell þeirra drepnu, sem med sverde ihelslegner eru, þeir ed ofann fara i þær griótkaser helvitis, so sem annad fóttródeð lik.

18. Eige munþu, lika sem þeir, grafenn verda, þviad þu hefir þitt land fordiarfad, og þitt fólk nidur dreped. Þviad alldreige mun þess sædesins hinna illskufullu framar minnst verda.

19. Búed til þad hans børn verde slátrud, fyrer misgerda saker fedra þeirra, so ad þau komest eigi á legg, hverke til ad erfa landed, ne ad uppfylla jardrike med stade.

20. Og eg vil koma yfer þá, seger Drottinn Zebaoth, og uppræta þeirra minning af Babylon, þeirra epterlátna ætt, hans son og sonar son, seger Drottinn.

21. Og eg vil gera hana til eignar pindsvinum, og ad sloduvøtnum: og eg vil utsópa henne med sóplimum foreydslunnar, seger Drottinn Zebaoth.

22. Drottinn Zebaoth hefir so svared og sagt: hvad gillder, ad þad skal so ske sem eg þeinke, og skal so blifa sem eg hefe i sinne.

23. Þad Assur verde nidursleigenn i minu lande, og þad eg nidur tróde hann á minum fiøllum, so þad hans ok verde af þeim teked, og þad hans byrde komest af þeirra hálse.

24. Þetta hid sama er áformed þad hann hefir yfer øllum løndum, og þad er su hin útretta høndenn yfer alla heidingia.

25. Þviad Drottinn Zebaoth hefir þad so úrskurdad: hver vill þvi hamla? og hans hønd er útrett, hver vill henne burt snúa?

## 15. Capitule.

1. A þvi óre þá konungurinn Achas andadest, var þesse su byrde.

2. Gled þig eigi þu gervallt Philistei land! þad sá vøndurenn sem þig sló se isundur brotenn, þviad út af rót høggormsins mun koma einn Basiliscus, og hans sæde mun einn glóande flugdreke vera.

3. Þviad hiner frumgetnu þeirra voludu munu fæda sig, og hiner

fátæku óttalauser hvílast. Enn þína rót vil eg med hungre deyda, og þiná epterlátnu skal hann ihel slá.

4. Ylfra þú port! kveina þú borg! allt Philisteis land er huglaust Þviad úr nordrenu kemur reykur. Og þar er er engenn einnsamann í hans landtiallde.

5. Og hvad munu sendebódarner heidenna þiódа her og þar segia? þetta: Þad ad Zion hafe Drottinn grundvallad, og hiner fátæku hans fólks munu þangad ser skiols leita.

## 16. Capitule.

1. Þetta er byrdenn yfer Moab. A náttarþele kemur foreydsla yfer Ar í Moab, hún er í burtu. A náttar tíma kemur foreyding yfer Kir í Moab, hún er í burtu.

2. Þeir ganga upp til Baith og Dibon alltaranna, so ad þeir gráte og yle yfer Nebo og Medbba í Moab. Allra høfud er hárlaust, allra skegg er í burt rakad.

3. A sínum gatnamótum ganga þeir medur hærusekkium vafder: uppá sínum ræfrum og strætum yla þeir aller, og ganga grátande þar ofann af.

4. Hesbon og Eliale æpa, so ad þad heyrest til Jahza. Þar fyrer kveina hiner herklæddu í Moab, þviad þeirra sálum geingur illa.

5. Mitt hiarta kallar til Moab: þeirra flóttamenn flúdu frá þeirre þrevetru kúnne, allt til Zoar, þvi þeir ganga ofan til Luhith, og gráta, og á veigenum til Horonaim, þar uppheffst eitt aumlegt hróp.

6. Þviad þau vøtnenn til Nimrim þverra, so þad heyed ofþornar, og grased visnar, og engar grænar jurter vaxa þar.

7. Þviad þau audæfenn sem, þeir hafa tilsamans dreiged, og þad fólked sem þeir hafa útbúed, flytst í burt yfer um þann víderlækenn.

8. Eitt hriggdar kall geingur umkring í landsálfum Moab: þeir emia allt til Eglaim, og þeir emia í hiá brunnenum Elim.

9. Þviad vøtnenn til Dimon eru full af blóde. Þar ad auk vil eg enn meira blód koma láta yfer Dimon, senda Leon, bæde yfer þá sem undann hafa komest í Moab, og yfer þá, sem epter eru ordner í landenu.

10. Kære! útsendeð þer landsins Herrar lambenn af Sela, úr eydemørkenne, til fiallsins dotturennar Zion.

11. Enn líka sem einn fugl flygur í burt, sá ed af sínu hreidre verdur í burtdrifenn, líka so munu verda þær dæturnar Moab, nær ed þær ganga framm hiá Arnon.

12. Safned rádum; halldeð þingstefnur; ger þer skugga um middeige, líka sem nótt. Fel þú þá flótta mennena, og legg ei til þeirra sem flúed hafa.

13. Leyf þú mínum flottamønnum í hiá þer ad herbergia, kære Moab! verþú þeirra verndarskiól fyrer foreydaranum, þá mun sá kvalarenn einn enda hafa, og sá fordiarfarenn linna, og sá niduriotiarenn afláta í landenu.

14. Enn þar mun einn stóll tilreiddur verda af miskunsemenne, so ad einn þar uppá site í sannleikanum, í tialldbúd Davids, og dæme, og tractere epter rettenum, og framfylge rettlætenu.

15. Enn ver høfum heyrt út af drambsemenne Moab, þad hún se miøg mikel, so þad hennar drambseme, stærelæte, og reide, er meire enn hennar magt.

16. Þar fyrer mun hver Moabite æpa yfer ødrum, allersamann

munu þeir æpa. Yfer grundvellenum borgarennar Kir Hareseth munu þiner lemstrudu andvarpa.

17. Þviad Hesbon er eydeland ordenn. Vijntred til Sibma er fordiarfad: herrarner medal heidenna þioda hafa hefs edla vijnvidar kvistu i sundursleiged, og eru komner allt til Jaeser, og fara ffring i eydemørkene. Hennar edla vijnvider eru i sundurdreifder, og yferum hafed flutter.

18. Þar fyrer græt eg vegna Jaeser, og vegna þess vijntresins til Sibma, og uthelle mørgum tarum vegna Hesbon og Eleale. Þviad þar er eitt saungshliod i þina sumargvinnu og haustyrkiu innfalled.

19. So þad gledenn og fagnudurenn er af akurlondunum i burt horfenn, og i þeim vijngerdunum kveda þeir ei ne gledia sig. Þar utþricfest ecke vijn i vijnpressunum: a saungunum hefe eg einn enda gert.

20. Þar fyrer hliodar mitt hiarta yfer Moab, lijka sem ein harpa, og mijn ydur yfer Kirhares.

21. Þa mun þad openskart verda, hvernenn þad Moab er þreytt ur i hia ølturunum, og hvernenn þad hann se geingenn til sinnar kyrkiu, at bidiast fyrer, og hafe þo engu til stadar komed.

22. Þetta er þad, hvad Drottinn hefir talad igegn Moab, i þad sama sinn.

23. Enn nu mæler Drottinn, og seger: a þremur arum, lijka sem þad eins verkmanns ar eru, þa mun vegsemdenn i Moab litelmotleg verda i þeim mikla mannfiølda, so þad miog faer epter verde, og eigi marger.

## 17. Capitule.

1. Þesse er su byrdenn yfer Damascum. Sia þu! ad Damascus mun eingenn stadur leingur vera, helldur ein nidur hrunenn griotbruga.

2. Þeir staderner Aroer munu forlatner verda, so ad þar mun hiordunum beitt verda, og þar mun engenn vera, sem hræder þær.

3. Og þad mun utgert vera um kastala Ephraims, og kongsrijked til Damascum, og þad sem epter er blifed i Syria mun vera lijka sem vegsemdenn Israels barna, seger Drottinn Zebaoth.

4. A þeim tima mun vegsemdenn Jacobs þunn verda, og hans feitur lijkame mun magur verda.

5. Þviad þeir munu vera lijka sem þa nær ed nockur innsafnar korne i haustvinnunne, og so sem þa nær ed einhver inndregur axenn med sinum armleggium, og lijka sem þa einn samanles axenn i dalnum Rephaim.

6. Og verde þar epter ein haustepterleitfia, lijka sem þad, nær ed madur slekur eitt vidsmiørstre, so þad upp i toppenum epterblife tvø edur þriu ber, edur so sem þa fiøgur eda fimm alldine hanga a kvistenum, seger Drottinn Israels Gud.

7. A þeim tima mun madurenn hneygiast ad hønum, sem hann hefir skapad, og hans augu munu lita uppa þann hinn heilaga i Israel.

8. Og ei mun hann hallda sig til þeirra altarauna sem hans hendur hafa gert, og eigi lita uppa þad hvad hans fingur hafa gert, hvorke uppa lundana ne lijknesfiurnar.

9. A þeim tima munu staderner þeirra styrkleiks vera lijka sem epterlatnar greiner og kvister, sem ad epterlatner voru vegna Israels barna, og munu i eyde vera.

10. Þviad þu hefir forgleymt Gude þins hialprædis, og þu hefir

eigi minnst á þad hellubiarged þíns stirkleiks. Þar fyrer muntu lystelega plantan nidur setia. Enn þar med munþu annarlegum þá vínkvistu lagt hafa.

11. Á pløntunar tímanum munþu þeirra vel gæta, so ad þitt sæde vari tímanlega. Enn í haust vinnunne, nær ed þú skallt kiarnann innyrkia, munþu sorg eins harmþrúngens þar fyrer hafa.

12. O vei þeim fiølda so mikels fólks! líka sem siáfar hafed mun þad upphióta, og bulldran lydsins mun dynia, líka sem dynur mikellra vatnsfalla.

13. Já! líka sem stór vatnsføll dynia, so mun fólked framm þeysa. Enn hann mun straffa þá: so munu þeir langt í burtslya, og mun of sækia þá, líka sem þad vindur feykcr molldar dúpte á fiøllum uppe, og líka sem hvirfelvindur kemur af stormvidre.

14. Ad kvølld tíma, siá þú! þá er þar skelfing, og ádur enn morgun kemur, eru þeir þar ei lengur. Þetta er verdkauped vorra ránsmanna, og erfd þeirra, sem vort hafa burt teked.

## 18. Capitule.

1. Vei þvi landenu, sem ad fer under vængia skuggann þessumeigenn vatnanna í Morlande!

2. Sem bodskapenn útsender á hafenu, og í reyr skipunum fer. Fared hedann þer skióter sendebódar, til þeirrar þiódar, sem rænd og rútlud er, til þess fólksins sem ognarligra er enn nockurt annad, til þess fólksins sem her og þar afskamtad og nidurtródeð er, hvers land vatnsflódenn underleggia.

3. Aller þer sem á jardríke bygged, og þer sem í landenu búa munu siá hvernenn þad merkenn á fiøllunum munu útsliúga, og heyra þad, hvernenn ludrarner munu bláfast.

4. Þviad so seger Drottinn til mín. Eg vil kyrru fyrer hallda, og umskygnast í mínu sæte, líka sem einn hite sem uppþúrkar regned, og so sem døgg í hita haustvinnunnar.

5. Þviad fyrer haustyrkiuna mun ávøxturenn uppvisna, og sá alldins víserenn í blómstur tídenne uppþorna, so þad steingurnar hlióte menn medur sigdum í burt ad snída, og vínkvistuna af ad høgga, og í burtkasta.

6. So ad menn hlióta tilsamans ad liggia láta, fuglana á fiøllunum, og dyrenn í landenu, so þad á sumre hreidre fuglarner sig þar inne, og á veturum ligge þar inne allskins dyr í landenu.

7. Á þeim tíma mun þad hid sundurdreifda og hid rænta fólked, þad sem ógurlegra er enn nockurt annad, þad her og þar er út af mælt og nidurtródeð, hvers land vatnsflódenn nidurleggia, gáfur færa Drottne Zebaoth, í þeim stad þar ed nafned Drottins Zebaoth er, til fiallsins Zion.

## 19. Capitule.

1. Þesse er byrdenn yfer Egyptalande: siá þú! ad Drottinn mun fara á einu skiótu skye, og koma í Egyptaland. Þá munu skúrgódenn í Egyptalande skiálfa fyrer hønum, og hiarta Egyptskra manna mun sliofgast í þeirra búke.

2. Og eg mun egna hvern Egyptskann móte ødrum, so ad einn bródurenn móte ødrum, einn vinurenn móte ødrum, einn stadurenn móte ødrum, eitt ríke skal móte ødru beriast.

3. Og hugar hreystenn þeirra

Egyptsku skal ad engu verda hiá þeim, og eg vil þeirra rád ad ónytu gera. Þá munu þeir adspyria sína afgude og presta, og sannsagnar-menn, og teikna útþydara.

4. Enn eg mun ofurgefa hina Egyptsku í hønd grimmra høfdingia; og hardrádur kongur skal yfer þeim drottna, seger sá stiornarenn Drottinn Zebaoth.

5. Og þad vatned í siónum mun uppþorna: þarad auk mun vatns-falled þverra og burthverfa.

6. Og vøtnenn munu framm-hlaupa, so ad þau stórvøtnenn hiá dykiunum munu verda lítel og þurr, bæde reyrenn og sefed mun uppvisna.

7. Og þad grased framm vid vøtnenn upp þorna, og allt þad sæ-de sem vid vøtnenn er mun upp-visna, og ad engu verda.

8. Og þeir fiskemenn munu syr-gia, og aller þeir hiner sømu sem kasta ønglunum í vatned munu kveina, og þeir sem fiske netenn út-leggia í vøtnenn munu hrigger vera.

9. Þeir ed godt netgarn ver-ka, og netenn tilsamans ríða, mu-nu fá sneyppu.

10. Og þeir ed fiske háfana hafa, ásamt med øllum þeim sem veide-vøtnenn gera fyrer verklauna sak-er, þá munu forgbitner vera.

11. Þeir høfdingiarner til Zo-an eru fáviser: hiner hygnu rád-giafarner Pharaonis eru ordner heimsker í rádum. Hvad seged þer þó út af Pharao? eg em sonur spek-inganna, og útkomenn af þeim gømlu kongunum?

12. Hvar eru nú þá þíner spek-ingar? láttu þá kunngera þer, og vísa þad, hvad ed Drottenn Zeba-oth hefir álycktad yfer Egypta-land.

13. Enn þeir høfdingiarner til Zoan eru heimsker ordner. Þeir høfdingiarner til Noph eru svikn-er, þeir svíkia og med Egyptalan-de þann hyrningar steinenn kyn-kvíslanna.

14. Þviad Drottinn hefir úthellt medal þeirra einum sundnslund-ar anda, so ad þeir ville Egypta-land í øllum þeirra gerningum, lí-ka sem þad einn ofdruckenn madur hann kollvelltir, nær ed hann selur upp.

15. Og Egyptaland mun ecke hafa, hverke høfuded ne halann, kvistenn ne eikina.

16. A þeim tíma mun Egypta-land vera líka sem konur, og óttast og skelfast, þá ed Drottinn Zeba-oth mun hendenne veyfa yfer þad.

17. Og Egyptaland mun hræd-ast fyrer landenu Juda, so þad, hver hann minnest á þad sama mun hrædast fyrer því, yfer rádenu Drottins Zebaoth, sem hann hefir álycktad yfer þeim.

18. A þeim tíma munu fimm staderner í Egyptalande tala ept-er tungumále Canaans, og sveria vid Drottinn Zebaoth: einn mun heita Jr Heres.

19. A þeim sama tíma mun all-tare Drottins vera midt í Egyp-talande, og einn yferskriftar steinn Drottins vid landamerkenn.

20. Hver ed vera mun eitt teikn og vitnisburdur þeim Drottne Ze-baoth í Egyptalande. Þviad þeir munu kalla til Drottins yfer þeim sem þá þvinga. Hann mun þá og senda þeim einn hiálparmann og meistara, hver ed þá frelsar.

21. Þviad Drottinn mun þeim Egyptskum kunnugur verda, og þeir hinir Egyptsku munu þeckia Drottinn á þeim tíma, og munu hønum med fórnum og matoffre

þióna, og þeir munu þeitum lofa Drottne, og hallda það.

22. Og Drottinn mun plága hina Egyptsku og græða þá, þviad þeir munu snúast til Drottins, og hann mun láta þá bidia sig, og lækna þá.

23. A þeim tímum mun vegur vera af Egyptalande til Assyriam, so það þeir er úr Assyria eru fari í Egyptaland, og hiner Egyptsku í Assyriam kome, og þeir hverútveggiu, hiner Egyptsku og úr Assyria, munu Gude þióna.

24. A þeim tímum mun Israel med Egyptskum og Assyriks siálfur þride vera, fyrer þá blessan sem á jördunne mun verda.

25. Þviad Drottinn Zebaoth mun blessa þá, og segia: Blessad sesu Egyptaland mitt fólk, og þú Assur, verked minna handa, og þú Israel, mín arfleifd!

## 20. Capitule.

1. A því árenu þá ed Tharthan kom til Asdod, so sem það Sargon, kongurenn í Assyria hafde hann útsendt, og hann bardest imóte Asdod, og yfervann hana.

2. A þeim sama tíma talade Drottinn fyrer Esaiam, son Amos, og sagde. Far þú, og leys þann seckenn af þínum lendum, og drag þín skóklæde burt af þínum fótum! og hann gerde so, geck nakenn og berfættur.

3. Þá sagde Drottinn: líka so sem það minn þiónn Esaias gengur nakenn og berfættur, til merkis og storundra þriggia ára, yfer Egyptum og Morlande.

4. Eins mun kongurenn í Assyria burtreka Egyptska fangada, og burtreka bæde unga og gamla, nackta og berfætta af Morlande, medur alberre blygdan, Egyptskum til skammar.

5. Og þeir munu skelfast, og skammast sín vegna Morlands, uppá hvert þeir vonudu, og þar imót Morland vegna þeirra Egyptsku, út af hverum þeir hrósudu ser.

6. Og þeir innbyggiarar þessarar eyar munu segia á þeim sama tíma: Er það vort traust, þangad ed ver flydum til hiálpar, so ad ver frelsader yrdum fyrer kongenum í Assyria? hversu sínlegana erum ver undann komner!

## 21. Capitule.

1. Þessi er sú byrde yfer eydemörkena vid siáfar hafed. Líka so sem eitt stormvidre kemur af sudre, það ed umsnyr öllum hlutum, so kemur það og líka út af eydemörkenne, í burt úr einu ógurlegu lande.

2. Þviad mer er víssud ein þúng syn: einn forsmánarenn kemur ímóte ödrum: einn fordiarfarenn imóte ödrum. Far upp hingad þú Elam! umkríngdu hana Madai! eg vil einn enda gera á allre þeirra andvarpan.

3. Þar fyrer eru mínar lendar fullar af hriggd, og angist hefir höndlad mig, so sem eina, þá ed fæder. Eg beyge mig, þá eg heyre það, og skelfest þá eg se það.

4. Mitt hiarta það skelfest vid: ógnanenn hefir hrædt mig: á nóttunne hefi eg þar enga ró fyrer.

5. Iá! bú þú eitt matbord til: látþu vaka á vardhallds hólnum. Eted, drecked, taked ydur upp þer höfdingiar! bered feitt á skiölduna.

6. Þviad Drottinn seger so til mín: far þú, og set einn tilsiónarmann, sá er adgæte og tilsege.

7. Enn hann ser reidmenn rída, og renna á hestum, ösnum og fulöldum, og gefur gætur þar ad med miklu athygle.

8. Og eitt Leon kallade, Drottinn! eg stend á dagenn med jafnade uppá vökuhædenne, og set mig uppá mitt vardhalld um allar nætur.

9. Og siá þú! ad þar kemur einn sem ferdast á einum vagne, hann gefur svar, og seger: Babylon er fallenn; hún er fallenn, og allar líkneskiur hennar skúrgóda eru nidurslegnar til jardar!

10. Minn kære kornláfe! þar ed eg þreske uppá. Hvad eg hefe heyrt af DrottneZebaoth, þeimGudeJsraels, þad sama kunngere eg ydur.

11. Þesse er sú byrdenn yfer Duma. Til mín var kallad út af Seir, vökumadur! er nóttenn snart úte? vökumadur! er nóttenn snart úte? enn vökumadurenn sagde:

12. Þá morgunenn kemur, þá mun þad þó samt nótt vera, þó ad þer spyred ad þvi, þá munud þer þó aptur koma, og aptur spyria.

13. Þesse er sú byrdenn yfer Arabia. Þer munud búa í skógenum í Arabia, á veigenum til Dedanim.

14. Færed vatn út á móte hinum þyrsta, þer sem bygged í landenu Thema. Bióded framm braudeð þ im ed flya.

15. Þviad þeir flya fyrer sverdenu, já! fyrer noktu sverde, fyrer þeim uppspennta boga, fyrer þvi mikla stríde.

16. Þviad so seger Drottinn til mín: þad enn á einu áre, líka so sem ad eru árenn daglaunarans, þá skal öll vegsemd Kedar undergangа.

17. Og þær Skytturnar sem epter eru ordnar af köppunum í Kedar skulu færre verda. Þviad Drottinn Jsraels Gud hefir þad talad.

## 22. Capitule.

1. Þesse er byrdenn yfer siónar dalnum. Hvad er ydur, ad þer hlauped so aller uppá ræfrenn?

2. Þú var full med glaum, ein borg full af fólke, ein gledeleg borg. Þíner helslegnu eru eigi med sverde vegner, og eigi í bardaga dauder.

3. Helldur eru aller þíner höfudsmenn fyrer boganum í burt flyder, og hertekner. Aller þeir sem fundest hafa í þer, þeir eru fangader, og langt í burt flúner.

4. Þar fyrer sege eg: hafed ydur í frá mer; láted mig gráta beisklega; ómaked ydur eigi ad hugsvala mer yfer þeirre foreydslunne dotturennar míns fólks.

5. Þviad þad er einn dagur stirialldar, og fottródningar, og eydeleggingar af Drottne Drottne Zebaoth, í siónardalnum, vegna þess undergraftar muranna, og þess herópsins á fiallenu.

6. Þviad Elam kemur þar med pílnakoffrenu, vagna, fólked, og rídanda lid, og Kir lætur skyna á skylldena.

7. Og þad mun ske, ad þíner útvöldu daler munu fuller verda med vagna, og rídande lid mun sínar herbúder setia fyrer portdyrunum.

8. Þá mun fortialldenu Juda upplypt verda, so þad mun siást á þeim tíma þau vopnenn skógarhussens.

9. Og spiollenn borgarennar Davids munu þá mörg siást, og þer munud vatnenu úr þvi nedsta vatnsdíkenu safna.

10. Þer munud og einnenn teja húsenn til Jerusalem, ja! þer

munud nidurbrióta húsenn, til ad stirkia múrveggena med.

11. Og þer munud gera grøf millum beggia múranna, út af vatne þess gamla fiskedíkesins. Þó gæted þer eigi ad hønum sem fóddann gerer, og siáed eigi uppá hann sem slíkt tilsender áleingdar.

12. Þar fyrer mun Drottinn Drottinn Zebaoth á þeim tíma kalla láta: ad þeir skulu gráta og kveina, og háred afraka, og hriggdarbúnade klædast.

13. Enn siá! þar er eigi utann glede og glaumur; naut drepenn; saudum slátrad; keted eted; vín drucked og (og sagt): látum oss eta og drecka; ver deyum þó á morgun.

14. Soddan er fyrer eyrum Drottins Zebaoth openbert: hvad gyllder, ef þesse misgerd verdur ydur fyrergefenn, ádur enn þer deyed, seger Drottinn, Drottinn Zebaoth.

15. So seger Drottinn, Drottinn Zebaoth: far þú og gack inn til rentu meistarans Sebna, hofgardsmeistarans, og seig þá til hans.

16. Hvad hefir þú her? hverum heyrer þú til? ad þú lætur úthøgga þer her eina grøf, so sem sá ed sína grøf á hædum uppe úthøgga lætur, og sína íbygging lætur í steinhellrum gera.

17. Siá þú! ad Drottinn mun burtsleygia þer, líka sem þad einn øflugur madur í burtsleyger ødrum, og krassa upp yfer þig.

18. Og hann mun vellta þer sem ødrum hnette, langt burt í framande lønd; þar munnþu deya; þar munu þíner dyrdleger vagnar blífa med forsmán hússens þíns Herra.

19. Og eg vil útskúfa þer úr þinne stett, og eg vil afsetia þig af þínu embætte.

20. Og á þeim tíma vil eg kalla minn þión Eliakim, son Hilkia.

21. Og vil íklæda hann þínum kyrtle, og gyrda hann med þínu bellte, og gefa þitt valld í hans hendur, so ad hann se fader þeirra sem byggia til Jerusalem, og hússens Juda.

22. Og eg vil lykelenn til hússens Davids leggia uppá hans herdar, so þad hann luke upp, og engenn aptur læse, þad hann aptur læse, og engenn uppluke.

23. Og eg vil keyra hann einn fastann nagla í sterkum stad, og hann skal hafa þad dyrdar sæted í síns fødurs húse.

24. So þad heingest uppá hann øll vegsemd hússens hans fødurs barna og barna barna, øll þau smá ker, bæde dryckiar staup, og allsháttud hliódfære.

25. Á þeim tíma, seger Drottinn Zebaoth, skal sá naglenn í burttekenn verda, sem fastur stendur í øruggum stad, so þad hann ísundur brotne og nidurfalle, og ad hans þúnge glatest, þvíad Drottinn hann seger þad.

## 23. Capitule.

1. Þesse er sú byrdenn yfer Tyro. Yled þer skipenn á siónum! þvíad hún er foreydd, so ad þar er ecke hús uppe, ne sá nockur sem þangad fare: út af lande Chitim munu þeir þess varer verda.

2. Þeir innbyggiarar eyanna eru nú kyrrer vordner: þeir kaupmenn í Zidon, sem yfer hafed fóru, þeir uppfylltu þig.

3. Og hvad fyrer alldine er ox vid Sizor, og þad korned sem vid vatned vogs, þad flúttest inn til hennar, yfer um mikel vøtn, og þú varst vordenn kauphøndlun heidenna þióda.

4. Þú mátt vel skelfast Zidon! Þviad siódar hafed, ja! sú hin allra sterkasta vid hafed hún seger: eg em ei lengur þúngud: eg fæde eigi lengur þungud: eg fæde eigi lengur, so el eg engenn ungmenne upp, og fæde ei neinar meyar upp.

5. Lika sem menn hræddust, þá þeir heyrdu um Egyptaland, so munu þeir og hrædast, þegar þeir heyra af Tyro.

6. Fared út á hafed: yled þer innbyggendur eyanna!

7. Hvert er þad ydar fagnadarborg sem ser hrósar síns alldurs vegna? hennar fætur munu langt í burt flytia hana til ad ferdast.

8. Hver hefde þad meint, ad þad skyllde Tyro hinne koronudu so ganga? hverrar kaupmenn ad þó voru høfdingiar, og hennar varnings menn hiner tiguglegustú í landenu?

9. Drottinn Zebaoth hefir þad so fyrer hugsad, uppá þad, ad hann veikte allt dramb þeirrar lystelegu borgar, og fyrerlítanlega gere alla tignar menn í landenu.

10. Renn þú ígegnnm þitt land, líka sem árstraumur þú dotter siófar hafsins: þar er ecke bellte lengur.

11. Hann útretter sína hønd yfer siófenn, og skelfer kongaríkenn. Drottinn hann yfer Canaan, til ad afmá þeirra hina volldugu.

12. Og seger: þú skallt eigi lengur glød vera þú hin skammada jungfrú, þú dotter Zidons! ó Chitim! vert til reidu, og far áframm, þviad þú mátt þar ei blífa.

13. Helldur í Chaldea lande, sem ecke fólk var, helldur hefir Assur þar skipaferder byriad, og fastann turn þar inne uppbyggt, og hefir þar høll upp smidad. Enn hún er sett til þess, ad hún ad velle nidur brióotest.

14. Yled þer skip á siónum, þviad ydar magt er nidur brotenn.

15. Á þeim tíma mun Tyrus forgleymd verda um siøtíu ár so lenge sem einn kongur getur lífad. Enn epter siøtíu ár lidenn mun kveded vera eitt hóru kvæde um Tyro.

16. Tak þú hørpuna og gack í kring í borgenne þú forgleymda hóra! haf þú godt lag á hliódstreingum, og syng frídt, so ad þín verde minnst aptur.

17. Þviad epter siøtíu ár lidenn mun Drottinn vitia Tyro, so ad hún kome aptur til sinna portlífes verdlauna, og drye hóraner vid øll kongaríkenn á jørdu.

18. Enn hennar kaupskapur og portlífes laun munu Drottne helgud verda: þad mun ei samann dreged vera í fehirdsliódu, og eigi nidur byrgt, helldur munu þeir sem fyrer Drottne byggia hennar kaup eyrer hafa, so ad þeir neyte og verde saddser, og seu vel klædder.

## 24. Capitule.

1. Siá þú! Drottinn gerer landed tómt og í eyde, og kollkastar því sem þar inne er, og ísundur dreifer þess innbyggiurum.

2. Og þad gengur so prestunum sem fólkenu, so húsbondanum sem þeenaranum, so húsfreyunne sem þiónustukonunne, so þeim ed selur, sem hinum ed kauper, so þeim ed lánar sem hinum ed láned tekur, so þeim ed krefur sem hinum ed skylldugur er.

3. Þviad landed mun tómt og rænt verda, því Drottinn hefir soddann talad.

4. Landed stendur hørmulega og spillest: jardarkringlann þverrar og fordiarfast: þeir ædstu folksins í landenu fara til minkunar.

5. Landed er saurgad af sínum innbyggiurum, þviad þeir ganga á lögmáled, og umskipta bodordunum, og láta fara þann eylífa sáttmála.

6. Fyrer þad sama þá uppsvelger bølvanenn landed, þviad þeir verdskullda þad sem þar byggia þar fyrer uppþorna þeir innbyggendur landsins, so ad fáer menn blífa þar epter.

7. Hid nya víned þad í burt hverfur; vín vidurenn hiadnar nidur, og aller, sem af hiarta glader voru, þeir andvarpa.

8. Gledenn bumbusláttarins legst af; føgnudurenn hinna gladværu er útgerdur, og glaumur hørpusláttarins hefir einn enda.

9. Vid víndryckiurnar kveda menn eigi; og gódur dryckur er þeim beiskur ed hann dreckur.

10. Su tóma borgenn er nidur brotenn; øll husenn eru apturbyrgd, so þad eingenn geingur þar inn.

11. Kallad er epter vínenu á strætunum; øll glede er í burt; allur føgnudur landsins er horfenn.

12. Eigi utann foreydslann er epter í borgenne blifenn, og borgarhlidenn standa í eyde.

13. Þviad þad geingur landenu og folkenu líka so sem þá nær eitt vidsmiørs tre er utplockad, líka so sem þá ed lesed verdur epter, nær ed vínyrkiann er úte.

14. Þeir hiner sømu hefia upp sína raust, hrópa og glediast, frá siáfar-hafenu, yfer þeirre dyrdarvegsemdinne Drottins.

15. Þar fyrer þá vegsamed nu Drottinn á lág-løndunum, í þeim út-eyum siófins, nafned Drottins Guds Israels.

16. Ver heyrum løssaung í fra endemørkum jardarennar, til dyrdar hinum reittferduga. Og eg hlyt ad segia: hvernenn em eg þá so magur? hvørnenn em eg þá so magur? Vei mer! þviad þeir forsmánarar forsmá þad.

17. Þar fyrer kemur yfer ydur þer innbyggiarar landsins! skelfing, grøf og snara.

18. Og þó ad nockur flyde fyrer kallenu skelfingarennar, þá mun hann þó falla í grøfena. Komest han úr grøfenne, þá mun hann þó fangadur verda í snørunne. Þviad þau vindaugunn í hædønum eru upplátenn, og grundveller iardarennar þeir skiálfa.

19. Þad mun þvi landenu ílla ad fara, og eigi luckast vel, og þad mun nidur hrynia.

20. Þad landed mun um koll detta líka sem druckenn madur, og í burt flutt líka sem annad tialldhreise, þviad þess misgerder nidur þrickia þvi, so þad hlytur ad falla, og kann eigi ad standa.

21. A þeim tíma mun Drottinn vitia þess háfa riddaralids, sem á hædunum er, og þeirra iardríkes konganna sem eru á jørdu.

22. Þad þeir samansafnader verde í eitt bindene til gryfiunnar, og innelukter í fangelsenu, og epter langann tíma lidenn, þá verdur þeirra vitiad aptur.

23. Og tungled mun fyrerlíta sig, og solenn mun standa med mínkun, nær ed Drottinn Zebáoth mun kongur vera uppá fiallenu Zion, og til Jerusalem, og í augsyn sinna ølldunga í dyrdar vegsemdinne.

## 25. Capitule.

1. Drottinn! þu ert minn Gud! þig vegsama eg, þitt nafn lofa eg, þviad þu gerer stórmerke: þitt áform í frá fornum tídum er trutt og sannarlegt.

2. Þviad þú gerer borgena ad griót-hrugu, þá sterku borgena, ad hun liggur nidur fallenn í einnre hrugu, hallernar þeirra annarlegu, so ad þad se eigi leinggur ein borg, og hún verde alldrei meir uppbyggd.

3. Þar fyrer heidrar þig eitt megtugt folk: borgernar vollbugra heidingia þær óttast þig.

4. Þviad þú ert sti-kleikur litelmagnans, styrkleikur hins vesæla i hormungenne, eitt skiól fyrer stormvedrenu, eirn skugge fyrer ofur hit anum, nær ed víkingarner ólmast, so sem annad hret-vidre á mote ein um vegg.

5. Þu læger hófadann hinna annarlegu, líka sem hitenn gerer í þurrum stad, so hitenn forþiarse vínvidar-kvistuna víkinganna, og skyenn gefe þó samt skuggann.

6. Og Drottinn Zebaoth mun gera ollu folke uppa þessu fiallenu eitt feitt gestabod, eit gestabod af kláru víne, af feite, af merg, af dreggiarlausu víne.

7. Og hann mun á þessu fialle burt taka hiúpinn, þar allt folk er med sveipad, og þá byrgingena sem aller heidingiar eru med byrgder.

8. Þviad hann mun daudann uppsvelgia eylíflega. Og Drottinn Drottinn mun afþurka tárenn af allra andlite: og hann mun í burttaka þá forsmán síns folks í ollum londum, þviad Drottinn hefir þad sagt.

9. A þeim tíma mun sagt verda: siá þu! þad er vor Gud uppá þann ver vonum, og hann mun hiálpa oss: þad er Drottinn, uppa hvern ver vonum, so þad ver glediumst og seum glader í hans hiálpræde.

10. Þviad hond Drottins hvílest uppa þessu fiallenu. Enn Moab mun under honum í sundur þreskt-ur verda, líka sem strá, þad sundur þreskest, og so sem saurende.

11. Og hann mun breida ut sínar hendur midt á medal þeirra, líka sem einn sundmadur breider þær ut til sundsins; og hann mun læga þeirra vols medur armleggium sinna handa.

12. Og beygia þann stirkleikann ydvarra hárra murveggia, og læga þá, og í dupt allt til jardar nidursleygia.

## 26. Capitule.

1. A þeim tíma mun soddann kvædesunged verda í landenu Juda. Ver hofum eina osluga borg, murarner og veriurnar eru hiálp.

2. Lated upp dyrnar, so ad þar inngange þad rettvísa folked, sem trúna vardveiter.

3. Þu heldur jafnann fridenn epter vissu fyrerheite, þvi menn treysta á þig.

4. Þar fyrer, þá treysted uppá Drottinn eylíflega, þviad Gud Drottinn er eitt biarg eylíflega.

5. Og hann beyger þá somu sem byggia á hædenne; þá háu borgena nidurlæger hann: já, hann hrinder henne til jardar, so þad hún liggur í dupte.

6. So ad hún verde med fótum trodenn, ja med fótum voladra, med hælum fátækra.

7. Enn vegurenn rettferdugra er slettur: fotstígen rettvísra gerer þú beinann.

8. Þviad ver vonum á þig Drottinn! á vegenum þinna rettinda: hiartans lysting stendur til þíns nafns, og þinnar minningar.

9. Af hiarta girnest eg þín á nottunne; þar ad auk med mínum anda í mer vakna eg snemma til þín. Þviad nær ed þín rettinde

ganga í landenu, þá læra þeir inn= byggendur jardarennar rettvísena.

10. Enn þo ad ógudlegum verde nádenn frammbodinn, þa læra þeir þó eigi rettvísena. Heldur gera ad eins illa í rettvísu lande, þviad þeir siá eigi þá dyrdar=vegsemd Drottinns.

11. Drottinn! þín hønd er upp= hafenn, þad siá þeir eigi; enn þá nær ed þeir siá þad, þá munu þeir til skammar verda, í þeirre vand= lætingu yfer heidnum þiódum. Þar ad auk muntu foreyda þeim med eldе, þar ed þú foreyder þínum óvinum med.

12. Enn oss muntu Drottinn! fridenn tilsenda, þviad allt hvad ver utrettum, þad hefir þú gefed oss.

13. Drottinn Gud vor! þar drottna enn adrer Herrar yfer oss enn þú, enn ver hugsum þó alleina= sta til þín og þíns nafns.

14. Hiner daudu blífa eigi lif= ande; hiner frammlidnu standa ei= gi upp. Þviad þú hefir vitiad þeir= ra, og afmad þá, og ad engu gert alla þeirra minning.

15. Enn þú Drottinn! fer á= framm medal heidenna þióda, aud= sýner þína vegsemd, og kemst langt á burt allt till enda veralldarennar.

16. Drottinn! nær ad hørmung enn er fyrer høndum, þá vitia menn þín, nær ed þu agar þá, kalla þeir sárgrætelega.

17. Líka so sem ólett kona, nær ed hún skal nú fæda, þá hefir hún kvøl, kallar upp í sínum barmkvøl= um, so geingur þad oss einnenn, Drottinn! fyrer þínu auglite.

18. Þar erum ver og einnenn þungader, og ver høfum hrigsd, so ad ver getum varla andardrætten= um nád. Þo getum ver eigi landenu vid hiálpad, og þeir byggendur á jardríkenu vilia eigi falla.

19 Enn þíner hiner daudu mu= nu lifa, og medur líkømum upp rí= sá. Vaked upp og lof seged, þer sem ligged í jørdu! Því ad þín døgg er su døgg hins græna vallarins, enn þú munt þvi hinna daudu lande nidur kasta.

20. Far þú mitt folk inn í þitt svefn hus, og lyk aptur dyrnar ept= er þer: geym þig líted augabragd, þangad til ad reidenn er hiá geng= enn.

21. Þviad siá þú! Drottinn mun útganga af sínum stad, til ad vitia lands sins innbyggiara ill= gyrne yfer þá, so þad landed mun openbera þeirra blód, og eigi leing= ur fela þá sem drepner eru þar inne.

## 27. Capitule.

1. A þeim tíma mun Drottinn vitia med sínu harda, mikla, og sterka sverde, bæde þess Leviathans sem einn slettur høgg=ormur er, og þess Leviathans sem einn biúgur høgg=ormur er, og hann mun dre= pá þann drekan sem í siónum er.

2. A þeim tíma mun sunged verda af víngardenum hins besta vínsins.

3. Eg Drottinn geyme hann, og vøkva hann snarlega, so ad hans lauf=blød missest eigi; eg vil dag og nótt bívara hann.

4. Gud hann er mer ei reidur. Eg villde, eg mætte beriast vid þyrna og þysla, þá villda eg ruska til þeir= ra, og brenna þá upp í einne hrúgu.

5. Hann mun hallda mer vid minn stirkleik, og gera frid vid mig; fridenn mun hann víst gera vid mig.

6. Þad mun þó líka vel þar ad koma, þad Jacob mun rætast, og Israel blomgast og grænkast, so ad þeir jardríked med ávøxtum upp= fylle.

7. Hann verdur þó eigi sleigenn, líka sem ad slægn þann hans óviner. Og verdur eigi deyddur, so sem deyddu hann hans óviner.

8. Helldur dæmer þú þá med máta, og lætur þá lausa, nær ed þú hefir angrad þá medur þínum hvøssum vinde, sem er med austann vindenum.

9. Þar fyrer þá munu synder Jacobs þar fyrer afláta; og þad er sú nytseminn þar út af, þad hans synder verda burt teknar, í þvi, þad hann gerer alla steina alltaresins, líka so sem sundurmølada steina, ad øsku, so ad þar verdur eigi epter neinn lundur ne bilæte.

10. Þviad su hin sterka borgenn mun einsleg verda; þaug hinu føgru húsenn munu kollkøstud og yfergefenn verda, líka sem ønnur eydemørk, so ad kálfar munu þar í fædast og hvílast, og þar kvistu af bíta.

11. Hennar kvister munu af þurk í sundur springa, so ad konur munu koma og kveikia þar elld med. Þvíad þad er eitt fávíst folk: þar fyrer mun og einnenn sa sem þá hefir gert eigi í brioste kenna um þá, og hann, sem þá hefir skapad, mun eigi vægenn vera vidur þá.

12. Á þeim tíma mun Drottenn útkasta, í fra backanum vatnsins, allt til lækiarins Egypti: og þer Israels børn! munud samann safnast einn epter ødrum.

13. Á þeim tíma mun bláſed vera med einum miklum herlúdre. Þá munu og koma hiner fortøpudu ur landenu Assyria, og hiner útreknu í Egyptalande, og munu tilbidia Drottinn uppá þvi heilaga fiallenu til Jerusalem.

## 28. Capitule.

1. Vei þeirre prydelegre coronu hinna fordrucknu af Ephraim, þeim følnudum blomstrum hennar lystilegrar pryde, hver ed stendur upp yfer einum feitum dal, þeirra hinna sømu, sem um koll vellta af vinenu.

2. Siá þu, ad einn sterkur og vølldugur af Drottne, líka sem ein hagl hríd, líka sem eitt skadsamt hret-vidre, líka sem einn ár-foss, sem megtuglega frammbrytst, mun med vallde ínnlátenn í landed.

3. So þad hin prydelega coronan hinna fordrucknu af Ephraim verde med fótum nidur trodenn.

4. Og þad følnada blomstred hennar liúslegrar pryde, hvert ed stendur upp yfer einum feitum dal, mun vera líka sem þad fullvaxed er fyrer sumared, hvert ed fordiarfast þá er menn siá þad enn nú hanga á sínum qvistum.

5. Á þeim tíma mun Drottinn Zebaoth vera ein elskuleg corona, og einn prydelegur krans, þvi sínu folke, sem epter er ordid.

6. Og þeim einn ande dómsins sem í dómenum sitia, og styrkleikur þeim sem í frá strídenu koma aptur til borgar hlidsins.

7. Þar med eru þesser einnenn víngalder ordner, og hrasa af sterkum drick, þviad hverertveggiu, presturenn og prophetinn eru galler af sterkum drick; þeir galast í spádómenum, og fálma til dómsins.

8. Þvíad øll matbord eru full med spyu og óþeckt, í øllum stødum.

9. Hverium skal hann þá kenna þá vidurkenningena? hverium skal hann þá gefa ad skilia þá predikunena? þeim sem afvander eru af miolkenne, þeim sem í burt tekner eru af briostunum.

10. Þviad (þeir segia): biodþu her, biodþu þar, biodþu her, biodþu

þar, bídþu her, bídþu þar, bídþu þar, her nockud líted, þar nockud líted.

11. Nu vel, hann mun eitt sinn med bádgiornum vorum, og med annarlegre tungu tala til folks þessa, hveriu ed þetta verdur nu predikad.

12. Þá hafa menn hvíld; þá endurnæra menn þá mæddu. So verda menn um kirrt, og vilia þó eigi soddann predikan.

13. Þar fyrer skal þeim einnenn ord Drottins jafnt so verda: biodþu þar, biodlu her, biodþu þar, biodþu her, bídtu þar, bídtu her, bídtu þar, bídtu her, her nockud líted, þar nockud líted, so ad þeir í burt gange, og á bak aptur falle, sundúrknosest, slotrader og fangader verde.

14. Af þvi þá heyred nu ord Drottins þer spottarar, þer sem drottned yfer þessu folke, sem til Jerusalem er!

15. Þviad þer seged: sáttmála høfum ver gert vid daudann, og samtøk hast vid helvíted, nær ed vatnsflóded ad kemur, þá mun þad eigi hitta oss. Þviad ver høfum lygena gert oss ad athvarfe, og hræsnena vora hlífdar-vernd.

16. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn: siá þú, ad eg legg í Zion einn grundvallar-stein, einn prófadann stein, einn kostulegann hyrningar-stein, sem vel er grundvalladur: hvør han truer sa flyr eigi.

17. Og eg mun dómenn setia til mæls-snuru, og rettvísena til vigtar. Þá mun hagled þad falska athvarfed fordrífa, og vøtnenn skulu þeirre verndar-hlífdenne í burt sleyta.

18. So ad ydar sáttmále vid daudan verde laus, og ydart samtak vid helvíted hafe engann stad. Og nær eitt vatns-flód ad kemur, mun þad ydur undertroda: jafnsnart sem þad framm geingur mun þad ydur í burt taka.

19. Kemur þad ad morgne dags, þá sker þad ad morgne dags, lika so einnenn hvert þad kemur daga edur nætur. Þviad alleina freistingenn kenner ad merkia orded.

20. Þviad sængenn er so þraung, ad þar veiter ecke af, og ábreidann so stutt, ad þeir verda ad kreppa sig þar under.

21. Þviad Drottinn mun taka sig upp, lika so sem á fiallenu Prazim, og reidast, lika sem í dalnum Gibeon, so ad hann gere sitt verk med einum ødrum hætte, og þad hann gere sit erfide med ødru móte.

22. Þvi láted nu af ydrum spe-skap, so ad ydar bønd verde eigi hardare, þviad eg hefe heyrt eina fordiørfun og føreydslu, sem ske mun af Drottne Drottne Zebaoth í allre verøldenne.

23. Láted ydur í eyrum loda og heyred mína raust: hygged ad, og heyred mína rædu.

24. Hvert plæger eda eriar, edur erfidar einnenn akurkallenn med jafnade sinn akur til kornsædis?

25. Er ei so, ad þá nær ed hann hefir gert hann jafnslettann, þá dreifer hann vichen, og kastar kumine, og sáer hveitenu og byggenu, einu ser hveriu í þann stad ed hann vill hafa þad, og þær adrar grasaiurter í sinn stad.

26. Lika so agar þá og þeirra Gud med dóme, og mentar þá.

27. Þviad menn þreskia eigi viche med þreskingar verkfære; láta ei vagnhióled ganga yfer kumined; helldur beria þeir af viched med staf, og kumined med prike.

28. Þeir mala þad, so þar gerest braud af, og í sundur þreskia þad eigi so med øllu, ad þad verde ad

ongvú, líka sem þá, nær ed þad yrde med vagnahiólum og hestum sundur-þreſkt.

29. Soddann ſker einnenn af Drottne Zebaoth. Þviad hans rád er dádsamlegt, og kemur þvi merkelegana af ſtad.

## 29. Capitule.

1. Vei Ariel, Ariel, þu borgenn herbudanna Davids: þer hallded ártíder og helga daga.

2. Enn eg vil veita angiſt Ariel, so ad hún ſe hrigg og ſyrgiande, og hun ſkal mer ein rett Ariel vera.

3. Þviad eg vil umkringia þig alla vega, og gera þer angiſt med hervirke, og torf-vegge upp gera láta í kringum þig.

4. Þá ſkall þú nidurlægd verda, og úr jørdu tala, og út ur molldarduptenedur þínu málemøgla, so ad þín rauſt ſe líka sem eins galldramanns nedann ur jørdunne, og burt úr molldenne úthvæſa þínu mále.

5. Og ſá mann fiølldenn sem þer mun íſundur dreiſa, mun ſo margur vera sem eitt þunnt molldar ryk; og ſá fiøldenn víkinganna sem fiúkande agner, og þad ſama ſkal ſnart ſkyndelega ſke.

6. Þviad þín mun af Drottne Zebaoth vitiad verda, med ſtórvidre, og jard-ſkiálſta, og miklum reidar-þrumum, med hvirfel-vinde og óvedráttu, og med loga þeſs foreídanda elldſins.

7. Enn líka sem ein ſyn á nóttenne í draume, ſo ſkal vera ſá fiøldenn allra heidenna þioda sem ſtrída á mote Ariel, áſamt med øllu þeirra lide og hervirke, og þeir sem ád henne þreingia.

8. Þviad líka ſo sem ad hungrádann dreímer, þad hann þykeſt neíta, enn nær ed hann vaknar, þá er hans ſál ſamt tóm: og líka sem þad þyrſtann dreymer, þad hann mune drecka, enn nær ed hau vaknar þá er han máttlaus og þyrſtur, ſo ſkal vera ſá fiøldenn allra heidingia, sem ſtrída á mote þvi fiallenu Zion.

9. Vered felmsfuller og nidurſlegner: forblinded ydur, og vered druckner, og þo eigi af Vínenu. Um koll vellted, þo eige af ſterkum drick.

10. Þviad Drottinn hefir núſkeinkt ydur einn anda þeſs faſta ſvefnſins, og tilluckt ydar augu, ydra ſpámenn og høfdingia, áſamt ſiáøndunum, hefir han blindad.

11. So þad ſióner allra ydra ſpámanna munu vera ydur líka sem ord einnrar innſigladrar bókar, hver, ef ad hun verdur feingenn heim eþ leſa kann, og ſagt ſo: les þú þad; og hann ſegde: eg kann eigi, þviad hún er innſiglud.

12. Eda líka ſo sem þá, nær ed hún yrde þeim feingenn, sem eigi kann ad leſa, og hann ſegde: les þú þad; og hann ſegde: eg kann eigi ad leſa.

13. Og Drottinn ſeger: þar fyrer ad fólk þetta nálægeſt mig med ſínum munne, og heidrar mig med ſínum vørum, enn þeirra hiarta er langt frá mer, og óttaſt mig epter mannanna bodordum, sem þeir kenna.

14. Þar fyrer vil eg og einnenn undarlegana umgángaſt med þeſſu folke. Já, hid allra undarlegaſta, ſo ád ſpekenn þeirra ſpekinga undergange, og þad ſkinſemenn þeirra vitringa forblindud verde.

15. Vei þeim er dulder vilia vera fyrer Drottne, til ad feia ſitt áſorm, og ſína gerninga ad hallda í myrkrenu, og ſegia, hver

ser oss? og hver þecker oss? hvernenn erud þer so rangsnúner?

16. Lika so sem þá ad hugsade mórenn leirsmidsins só, og þad verked segde af sinum meistara: hann hefir mig eigi gert, og leir-potturenn segde af sinum leir-smid: hann þecker mig eigi.

17. Nú vel, þad er nu um eina mieg litla stund ad gera, þá skal Libanon eitt sleitlende verda og þad slettlende skal fyrer skog reiknad verda.

18. Þviad á þeim sama tima munu hiner dausu heyra ordenn bokarennar: og augunn blindra munu siá ur myrkrenu og dymmunne.

19. Og hiner fárádu munu ad nyu glediast j Drottne; og hiner fátæku medal mannanna munu glader vera í þeim heilaga Israels.

20. Nær ed þeir víkingarner hafa einn enda, og þad mun útgert verda um þa spottarana.

21. Og ad þeir aller afmáder verda, sem vaka til þess ad uppbyria mædunna, hverer ed koma folkenu til ad syndgast fyrer Predikan, og veita þeim epterfør sem þa ávita í portenu, og burt snua fyrer lygar frá hinum rettferduga.

22. Þar fyrer seger Drottinn, sem frelsad hefur Abraham, so til hussens Jacobs: Jacob skal eigi meir til skammar verda, og hans andlit skal eigi meir skammast, sin.

23. Þviad nær ed þeir siá børn, þau verkenn minna handa á medal sin, þa munu þeir helga mitt nafn, og þeir munu helga þann hinn heilaga í Jacob, og óttast þann Gud Israels.

24. Þviad þeir, sem soddann villu-anda hafa, munu skilningenn medtaka, og þeir þvættarar munu sig menta láta.

## 30. Capitule.

1. Vei þeim fráhverfum børnum, seger Drottinn, sem án mín taka rád, og án míns anda hlifdar leita, til ad auka einnre syndenne yfer adra.

2. Þeir sem ofan fara í Egyptaland og adspyria eigi minn munn, so ad þeir styrke sig med magt Pharaonis, og hlife ser under skugganum Egyptalands.

3. Þviad sá styrkleikurenn Pharaonis skal ydur til skammar snúast; og sú hlífdenn under skugganum Egyptalands til smánar.

4. Þeirra høfdingiar hafa vel vered til Zoan, og þeirra sendebod hefir komed til Hanes.

5. Enn þeir hlióta þó aller til skammar ad verda, yfer því folkenu sem þeim kann eingenn nytsemd ad ad vera, hverke til hiálpar ne annara nota, helldur alleinasta til skammar og spotts.

6. Þesse er sú byrdenn yfer þeim dyrunum, sem í móte sudrenu fara, hvar ed eru leon og leona-ynnur, iá, nødrur og glóande flugdrekar, í landene hørmungarennar og harmqvælesins. Þeir flytia sitt gódt á hriggium folanna, og sína fesióðu uppá bake ulfalldanna, til þess folksins sem þeim kann eigi neitt gagn ad gera.

7. Þviad Egyptaland er ecke, og þeirra hiálp er forgefens. Þar fyrer predika eg þar so útaf, ad Rahab skal sitia kyrr þar til.

8. So far þu nú, og skrifa þad fyrer þeim á eitt spialld, og teikna þad í eina bok, so ad þad vare um alldur og ad eilífu.

9. Þvíad þad er óhlyded folk, og lygenn børn, þau sem eigi vilia heyra løgmál Drottins.

10. Helldur segia til siáarans: Þer skulud eigi siá; og til tilsiónarmannanna, þer skulud eigi skoda ofs þann retta lærdom. Enn prediked ofs gedsellt, og skoded ofs þad sem á tálar bregur.

11. Víked af veigenum; fared í burt af brautenne; láted þann hinn heilaga j Israel láta af hiá ofs.

12. Þar fyrer seger hinn heilage í Israel so: med því, ad þer burt kasted þessu ordenu, og forláted ydur uppá ofbellde og þverlynde, og trássed þar uppá.

13. Þá skal ydar soddan ódygd vera líka sem ein sprunga í háum múrvegg, nær ed hún tekur ad glidna, þá mun hún miøg snarlega og óforvarandis inn detta og nidur hrynia.

14. So sem þá einn leirpottur verdur sundur brotenn, so at madur sundur molarhann, og væger hønum eigi, so ad út af hans brotum finnest ekkert skurn, þar elld mætte í bera frá elld-stadnum, edur vatne med ausa úr einum brunne.

15. Því so seger Drottin Drottinn, sá hinn heilage í Israel. Ef ad þer værud kyrrer, þá yrde ydur hiálpad. Og fyrir kyrrlæted og vonena munud þer sfluger verda. Enn þer viled eigi, og seged:

16. Nei, helldur vilium ver á hestum undann flya (þar fyrer munud þer og flottamenn verda) og á gøngørunum villum ver ríða (þar fyrer munu ydrer offækendur ná ydur).

17. Þvíad þusund af ydur mun flya fyrer heitingar-ordum eins þeirra: já fyrer fimm mønnum munud þer aller flya, þangad til ad þer verded epter, líka sem eitt mastur tre uppá einu fialle, og so sem merke uppá einnre hæd.

18. Þar fyrer bidleikar Drottinn vid, ad hann se ydur miskunsamur, og hefur sig þvi upp, ad hann se ydur líknsamur, þvíad Drottinn er einn Gud dómsins: sæler eru aller þeir sem hans bida.

19. Þvíad Zions folk mun til Jerusalem byggia. Þú munt eige gráta. Hann mun þer miskunsamer vera, nær ed þú kallar: hann mun þer andsvar gefa jafnsnæmt, og hann heyrer þad.

20. Og Drottinn mun ydur í hørmungenne braudid, og í angistenne vatned gefa, þvíad hann mun þinn lære-meistara eigi meir burt flya láta, helldur munu þín augu siá þinn lære-meistara.

21. Og þín eyru munu heyra þad orded á bak þer talad, segiande: þetta er sá vegurenn, þann sama ganged, annars hverke til hægre ne vinstre handar.

22. Og þer munud saurga ydra silfrada afgude, og gyllene-klæde ydra líkneskia, og munud burt kasta þeim, líka sem ekecktar saur, og segia til þeirra: fared burt.

23. Þá mun hann þínu sæde, því ed þú hefir í akurenn sád, regned gefa, og brauded af akursins innkomu, og þess hins sama alls nægter. Og þitt fe mun ser á þeim tíma fædslu fá í einum vídlendum gras-haga.

24. Þeir uxar og folarner, sem akurenn eria, munu sammeingad fódur eta, hvert ad vinsád er med vindskuflunne og sálldrenu.

25. Og uppá øllum stórum fiøllum og størum hædum munu adskilder vatnslæker frammsliota, á tímanum þess mikla, mann-

drápsins, nær ed turnarner nidur falla.

26. Og lióséd tunglsins mun vera líka sem lióséd sólarennar, og sólar-lióséd mun siøfallt skiærara vera enn nú er þad, á þeim tíma, nær ed Drottinn bindur um sárenn sins folks, og græder þeirra ákomur.

27. Siá þú! nafned Drottins kemur út af fiarlægd, hans reide hún brennur og er miøg þung; hans varer eru fullar med grimmd, og hans tunga sem einn fortærande elldur.

28. Og hans andarblástur líka sem eitt vatnsfall, sem ad tekur allt uppá hálsenn, til ad sundurdreifa heidnum Þiodum, þangad til ad þær verda ad engu, og dreifa folkenu hingad og þangad, med beisl: í þeirra munne.

29. Þá munud þer syngia líka sem á einne heilagre hátídar nóttu, og gledia ydur af hiarta, líka so sem þá menn ganga med pípna hliodum til fiallsins Drottins, og til hins ofluga Israels.

30. Og Drottinn mun heyrá láta sína dyrdlega raust, so ad þeir siáe hans útrettann armlegg, med reidugleg re ogn, og med loga þess fortærandá elldsins, med geislum, med sterku regne, og med hagle.

31. Þvíad Assur mun skelfast fyrer raust Drottins þess er hann slær med vendenum.

32. Þvíad vøndurenn mun med øllu í gegnum ganga, og beint áhæfa, nær ed Drottinn mun hann koma láta yfer hann, medur bumbum og hørpum, og allstadar móte þeim ad strída.

33. Þvíad grøfenn er þegar í giær-dag tilbúenn: já, sú hin sama er og einnenn kongenum tilbúenn, diúp og nógu víd, so eru og hybylenn þar ínne, elldur og nóglegur brennevidur: sá andarblástur enn Drottins mun upptendra þad, líka sem brennesteins læk.

## 31. Capitule.

1. Vei þeim sem ofann fara í Egyptaland, epter hiálp, og treysta uppá hesta, og vona uppá hervagna, af því þeir eru so marger, og á riddarana, af því þeir eru miøg sterker, og hallda sig eigi til hins Heilaga í Israel, og leita eigi Drottins.

2. Enn hann er vitur, og tilsender ógæfuna, og umvender eigi sínum ordum: helldur mun hann taka sig upp gegn húsum þeirra illskuliu, og gegn hiálpenne illvirkianna.

3. Þvíat Egyptaland er madur og eingen Gud, og þeirra hestar eru kiøt, og eigi ande. Og Drottenn mun sína hønd útretta, so ad sá hrase sem hiálpena veiter, og hann sem hiálpad verdur, nidur falle, og ad þeir aller til samans tortínest.

4. Þvíad so seger Drottenn til mín: líka so sem eitt leon og eitt ungt leon greniar yfer sínne bráð, nær ed fiølldenn fiárhyrdaranna kallar ad hønum, þá skelfest hann eigi fyrer þeirra hrópe, hann er og einnenn eigi stúrande fyrer þeirra mann fiølda. Líka so mun Drottinn Zebaoth ofan stíga, ad strída á fiallenu Zion, og á þess hædum.

5. Og Drottinn Zebaoth mun veria Jerusalem (líka sem ád fuglarner gera med vængiunum) hlífa henne, frelsa hana, og ganga kringum í henne, og hiálpa henne ur vanda.

6. Snúed aptur þer Israels børn! þer sem miøg erud fráhorfenn.

7. Hvíad á þeim tíma mun hver sem einn í burt kasta sínum silfurs og gulls skurgodum, hver ydrar hendur høfdu gert, ydur til syndar.

8. Og Assur skal falla, eigi fyrer manns sverde; og skal foreyddur verda, eigi fyrer manns sverde; og þo mun hann fyrer sverdenu flya, og hans æskumenn munu skattgillder verda.

9. Og þeirra helluſteinn mun af hrædslu í burt fara; og hans høfdingiar munu fyrer myrkrenu á flótta hallda, seger Drottinn, sem til Zion hefir elld, og til Jerusalem einn elldsofn.

# 32. Capitule.

1. Siá þu! þar mun einn kongur ríkia, rettvísena til ad upphefia, og høfdingiar munu drottna, rettindenn ad efla.

2. So ad hver madur mun verda so sem sá, ed fyrer vinde er forvaradur. og so sem sá ed fyrer steyperegne er innebyrgdur, so sem vatnslækur á þurrlende, so sem skugge mikels hellubiargs í þurru lande.

3. Og augu þeirra sem siá munu eigi láta blinda sig, og eyru þeirra sem til heyra munu gæta ad því.

4. Og þeir sem óframmsyner eru munu hyggindeløra, og tungann þeirra sem stama mun skírt og hreint tala.

5. Einn heimskur madur mun eigi leingur høfdinge kallast, ne einn ágiarn madur einn herra kalladur verda.

6. Hvíad hinn heimske seger út af heimskunne, og hans hiarta umgeingst med ógæfunne, so ad hann uppbere hræsne, og predike villudom af Drottne, hvar med hann úthungre þær hungrudu sáler, og banne þinum þyrsta ad drecka.

7. Hvíad verkfære hins ágiarna er eigi utan skade, hvíad hann finnur uppá prette til fordiørfunar fáráædum, med følskum ordum, þá ed hann skal tala rettinde vegna hins fátæka.

8. Enn þeir høfdingiar munu þad hugsa sem høfdingium hæfer, og hallda þar vid.

9. Standed upp þer dramblátu kvinnur: heyred mína raust þer dætur, sem so athugalausar erud; láted ydur í eyrum loda mína rædu.

10. Þad er um eitt ár og dag ad gera, þá munud þer hinar uggalausu! skelfast, þvíad þar verdur eingenn vínyrkia; þar verdur og eingen innsafnan.

11. Hræded þer drambsømu kvinnur, skiálfed þer hinar athugalausu, þar er fyrer høndum, af klædum ad fara, alsberum ad vera, og ad uppstytta sig um sínar lendar.

12. Harmur mun vera akursins vegna, já vegna þeirra lystelegu akranna, vegna þeirra friossømu víntrianna.

13. Hvíad á akurløndum míns folks munu uppvaxa þyrnir og þistlar, þar ad auk uppá øllum gledihúsum hinnar gladværu borgarennar.

14. Hvíad hallernar munu í eyde vera, og sá borgarúmgúrenn mun ad engu verda, so ad þeir turnarner og þau sterku vígenn verde jardgrysiur æfenliga, og villudyrunum ad fagnade, hiørdenne til haga.

15. Þangad til so leinge þad yfer oss úthelltur verdur sa ande út af hædunum, þá mun eydemørkenn ad akre verda, og akurenn fyrer skóg reiknadur verda.

16. Og retturenn mun í eyde-

mørkenne byggia, og rettlæted á akrenum þar fyrer utann.

17. Og rettlætesins ávøxtur mun fridurenn bera, og þess rettlætesins nytseme mun vera eylífleg kyrrd og øruggleike.

18. So þad mitt folk mun búa í húsum fridarins, í øruggre byggingu, og í úkvídenne róseme.

19. Enn hagled mun vera ofan ad skógenum, og sú borgenn þar fyrer nedann mun nedarlega verda.

20. Sæler erud þer, sem sátud alla vegana vid vøtnenn, þviad þar meiged þer uppá ganga láta fætur uxanna og asnanna.

## 33. Capitule.

1. Eyn vei þer þú eydeleggiare! meinar þú, ad þú muner eigi eyddur verda? og þú forsmánare! meinar þú, ad þú muner eigi forsmádur verda? nær ed þú hefir eydeleggingena útendad, þá muntu einnen eydelagdur verda, nær ed þú hefir gert einn enda forsmánarennar, þá muntu líka aptur forsmádur verda.

2. Drottinn! miskuna þú oss! þviad þín bídum ver. Verþu þeirra armleggur snemma, þar ad auk vort hiálpræde á hørmungartímanum!

3. Látþu folked undann flya fyrer þeim stóra gny, og þeir heidnu í sundur dreifda verda, nær ed þu upphefur þig.

4. Þá munu þeir upptína ydur so sem herfáng. Líka sem þá eingesprettur tínast upp, og sem þá kefer i sundur elltar verda nær ed menn yferfalla þær.

5. Drottinn han er upphafenn, þviad hann bygger í hædunum: han hefir Zion uppfyllt med dóme og rettvíse.

6. Og þar mun á þínum tíma vera trú, og yferdrottnan, hiálpræde, speke, vísdómur. Otte Drottins mun vera hennar fiársiódur.

7. Siáed! þeirra sendebodar kalla fyrer utann, og einglar fridarins gráta beisklegana (og segia): þeir veigerner eru í eyde; þar geingur eingenn leingur á strætúnum.

8. Hann helldur hverke tryggd ne trú.

9. Hann burtkastar stødønum, og aktar eigi folked neins. Landed liggur aumlega og sárgrætelega: Libanon stendur skammarlegana forhøggvenn, og Saron er líka sem annad slettlende, og Basan og Carmel eru í eyde.

10. Nú vil eg taka mig upp, seger Drottinn: nú vil eg hefia mig upp: nú vil eg komast hátt.

11. Ad sirác erud þer óletter, þer munud fæda hálm; ydar eigenn ande mun ydur fortæra so sem annar elldur.

12. Þviad folked mun ad múrlíme brennt verda, so sem þá afhøggvenn þyrneklúngur med ellde uppbrennast.

13. So heyred nú, þer sem fiarlæger erud, hvad eg hefe gert; og þer, sem nálæger erud, merked minn styrkleika.

14. Hiner syndugu til Zion eru skelfder: hrædsla er yfer þá hræsnara komenn (og segia) hver er sá vor á medal þar kunne ad búa í hiá einum foreydande ellde? Hver er sá á medal vor ad búa kunne hiá eylífum glædum?

15. Hver hann geingur í rettvísenne, og talar hvad rett er; hver haun hatar ranginden og ágyrndena, og tekur sínarr hendur frá þvi þad hann þigge engar skeinkingar, hver ad til-

byrger sín eyru, so hann heyre eigi blódskuld, og lykur sín augu aptur, so ad hann siáe eingenn ilskupar.

16. Sá mun í hædunum byggia, og biørgenn munu hans virke og verndarhlíf vera. Hans braud mun hønum gefast; sitt vatn þad hefir hann víst.

17. Þin augu munu þann Kongenn siá í sinne fegurdar prýde: þú mun og siá þad landed utvídkad.

18. So ad þitt hiarta mun undrast þad nærsta, og segia: hvar eru nú þeir hiner skriftlærdu? hvar eru rádgiafarar? hvar eru nú canzelerar?

19. Þar ad auk munþu eigi siá þad øfluga folked, þad folked sem diúpsett tungumál hefir, hvert ed madur fær eigi skiled, og af óskilianlegù tungumále sem eigi kann ad skiliast.

20. Skoda þú Zion! vorra hátída borg: þín augu skulu siá Jerusalem, þá øruggu bygging, eina tialldbúd sem eigi verdur j burtu slutt; hverrar naglar þad alldrei skulu útdragast, og eingenn hennar støg í sundur slitenn verda.

21. Þvíad Drottinn mun þar volldugur hiá oss vera, og þar munu vídar vatnsgrafer vera, so ad engu skipe mun þar med árum yfirróed, og engar galeidur munu þangad sigla.

22. Þvíad Drottinn er vor domare: Drottinn er vor meistare: Drottinn er vor konungur; hann hiálpar oss.

23. Láted þá sínar snørur upp spanna, þær munu þo eigi hallda. So munu þeir og einnenn merkenu á mastenu eigi útslá. Þá mun mikiu kostulegu herfánge út skipt verda, so þad einnenn hiner halltu munu ræna.

24. Og eingenn innbyggiare mun þá segia: eg em veikur, þvíad þad folked, sem þar inne bygger, mun hafa syndanna fyrergefning.

## 34. Capitule.

1. Komid hingad þer hiner heidnu! og heyred, þer folked! hygged ad þvi, jørdenn hun hun heyre til, og hvad þar er inne, veralldar-kringlann med hennar ávexti um.

2. Þvíad Drottinn er reidur uppá allar heidnar þioder, og gramur uppá allt þeirra herlid: hann mun formæla þeim og efurselia til drápsins.

3. Og þeirra hiner ahelslegnu munu í burt kastader verda, so ad af þeirra líkømum mun ó-þefur upp koma, og fiøllenn munu flióta af þeirra blóde.

4. Og allt þad herlid himensins mun førrotna, og himenenn mun til samans brotenn verda líka sem annad bref; og allur hans herskare mun uppvisna, líka sem annad laufblad upp visnar á vín vide, og so sem eitt þurt laufblad á fíkiutrenu.

5. Þvíad mitt sverd er drucked á himnenum; og siá þú, þad mun ofann fara yfer Edom, og yfer þad bølvada folked, til straffs.

6. Sverd Drottins er fullt af blóde, og þickt af feite, af blódenu lambanna og hafranna, af nyrna feitenne brútanna. Þvíad Drottinn helldur eitt mannslag til Bozra, og eitt miked manndráp í landenu Edom.

7. Þar vírda einhyrningarner med þeim under ad kriúpa, og ung-neytenn med þeim feitu nautum. Þvíad þeirra land mun

brucked verda af blóde, og þeirra jørd bólgenn verda af feite.

8. Þvíad það er sá hefndardagur D-ottins, og áred endurgialldsins, ad hefna Zion.

9. Þar munu þeirra læker verda ad bike, og þeirra jørd ad brennesteine. Ja, þeirra land mun ad brennande bike verda, það hverke mun slockna daga ne nætur.

10. Helldur mun eylífleg svæla upp af því ganga, og um alldur og æfe mun það í eyde vera, so ad þar mun eingenn í gegnum ferdast ad eylífu.

11. Helldur skal það eignast reyrdrummur og þindsvin, náttuglur og hrafnar skulu þar bua. Þvíad hann mun draga þar yfer einn mælekráð, so ad það í eyde verde, og eitt mælislód, ad það skal vera í eyde.

12. So ad þeirra hiner edalbornu skulu kallast herrar sem ecke land eiga, og aller þeirra høfdingiar hafa einn enda.

13. Og þar munu þyrnir uppvara í þeirra høllum, netlur og þyslar í þeirra slotum, og þau mun vera eitt bæle drekanna, og grashage strutsfuglanna.

14. Þar munu tilsamans hlaupa draugar og skrímsl, og eitt trøll mun þar ødru mæta: náttdraugar munu einnenn þar sitt bæle hafa, og sína hvíld þar finna.

15. Þar mun og einnen þindsvíned hreidra sig, leggia og útklekia under þess skugga: so munu einnenn hræfuglarner þar til samans koma.

16. Leited nú í bók Drottins og lesed, þar mun eigi í einu af þessu bresslur vera, og þar mun einnenn eigi neitt missast, hverke hitt ne þetto. Þvíad hann er sá sem fyrer minn munn bydur. Og hans ande er það, sem það til samans færer.

17. Hann sender hlutfalled yfer þá og hans hønd útskipter mælernum á mille þeirra, so ad þeir eignest það þar inne ad eylífu, og blífe þar inne um alldur og æfe.

## 35. Capitule.

1. Enn sú eydemørkenn og óbygden mun lysteleg vera, og slettlended mun gledelegt standa, og blómgast líka sem liliu-gras.

2. Hún mun blómgast og gledeleg standa í allskins lyst og føgnude. Þviad dyrdenn Libani er henne gefenn, og prydenn Carmels og Saron: þeir siá þá dyrdarvegsemd Drottins, þá fegurdarprydena vors Guds.

3. Stirked lúnar hendur og endurlífged þau veikludu kne.

4. Seged esabløndnum hiørtum: vered hraust í huganum, og vered ei ottasleginn, siáed! ad ydar Gud kemur ad hefna, Gud sá ed endurgelldur, hann kemur, og mun hiálpa ydur.

5. Þá munu augunn blindra upplúkast, og eyrunn daufra opnud verda.

6. Þá mun hinn hallte upp støckva sem hiørtur, og tungann hins mállausa mun lof segia. Þvíad þar munu vatnsráser í eydemørkunne hingad og þangad flióta, og vatnsstraumar um slettlendid.

7. Og hvar ed ádur hefir vered hørd grund, þar skulu stødu-vøtn vera; og hvar ed þurrlended hefir vered, þar skulu uppsprettu brunnar vera. Þar ed ádur fyrre hafa

høggormar leiged, þar skal gras, reyr, og stør standa.

8. Og þar mun braut og vegur vera, hver ed kallast mun sá hinn heilage vegurenn, þar eingenn saurugur mun uppá ganga. Og sá hinn same mun vera fyrer þá, so ad þeir gange þar uppa, so þad einnenn hiner fávísu kunne eigi ad villast.

9. Þar mun ecke Leon vera, og ecke óarga dyr mun þar uppa ganga, ne þar funded verda, helldur mun þad frít og ugglaust ganga meiga.

10. Þeir hiner endurkeyptu Drottins munu aptur koma, og til Zion koma med fagnadar kæte. eylíf glede mun vera yfer þeirra høfdum: glede og føgnud munu þeir høndla; og hriggd og sorg mun hlióta í burt ad víkia.

## 36. Capitule.

1. Og þad skede so á þui fiortanda áre kongsins Ezechias, þad kongurenn af Assyria Senacherib fór upp í móte øllum føstum borgum í Juda, og yfervann þær.

2. Og konungurenn af Assyria sende Rabsake fra Lachis til Jerusalem, til kongsins Ezechia, med mikelle magt, og hann gekk til vatns-rennunnar hins effta dykesins, vid veigenn hiá akrenum Litarans.

3. Og Eliakim, sonur Hilkiæ, hofmeistarenn, og Sebna, Canzelerinn, og Joah, sonur Assaphs, skrifarenn, geingu ut til hans.

4. Og sá ypparsti skeinkiare sagde til þeirra; seged þetta Ezechia, so seger sá hinn mikle konungur, sá konungurenn af Assyria.

5. Hvada traust er þad, er þú treystier uppá? eg helld, ad þú lætur so umtelia fyrer þer, sem þú hafer rád edur magt til ad beriast. Uppá hvern treyster þú þá? ad þú ert fallenn frá mer?

6. Treyster þú uppá þann í sundurbrotna reyrstaffenn Egyptaland? hver, ef nockur stydur sig þar uppá, þá geingur hann inn í hans hønd, og ígegnum stingur hana; so gerer Pharao kongur Egyptalands, øllum þeim sem uppa hann treysta.

7. Enn villtu segia mer: Ver treystum uppá Drottinn Gud vorn, hvert er hann eigi sá, hvers hæder og ølturu ad Ezechias hefir nidur broted, og sagt so til Juda og Jerusalem: fyrer þessu alltare skulud þer til bidia.

8. Nú vel, þá reyndu til vid minn herra konungenn af Assyria. Eg vil gefa þer tvø þusund hesta, látþu siá hvert þú kannt hiá þer ad fá þá sem þar uppa rída.

9. Hvernenn villþu þá blífa fyrer einum høfudsmanne hins minnsta þenara míns herra? og þú treyster uppá Egyptaland fyrer saker þeirra hervagna og riddaralids.

10. Þar med meinar þú, ad eg hafe án Drottins upp fared í þetta land til ad fordiarfa þad, já, Drottinn sagde til mín: far þú upp í þad land og fordiarfa þad.

11. Enn Eliakim og Sebna, og Joah, søgdu til þess ypparsta skeinkiara: tala þú vid þina þionustumenn í syrlendsku tungumáln, þviad ver skilium þad fullvel, og tala eigi vid oss Gydinga mále, fyrer eyrum folksins sem uppá murunum er.

12. Þá sagde sá ædste skeinkiare: hvert meinar þú, þad minn herra hafe sendt mig til þíns herra ad eins, eda til þín, slíkum

ordum ad tala, og eigi [miklu framar til þeirra manna sem þar uppá murnum sitia, so ad þeir med ydur ete sinn eigenn þreck, og dreckt sitt eiged þvag?

13. Og sá ædste skeinkiare stód og kallade med hárre raustu á gydinga túngu, og sagde: Heyred þau ordenn hins mikla konungsins, konungsins af Assyria.

14. So seger konungurenn: Láted eigi Ezechiam tæla ydur, þviad hann kann eigi ad frelsa ydur.

15. Og láted eigi Ezechiam gefa ydur ofmiked traust uppá Drottinn, þad hann seger: Drottinn mun frelsa oss. Og þesse borg mun eigi gefenn verda í hendur kongsins af Assyria.

16. Hlyded eigi Ezechia, þviad so seger kongurenn af Assyria: Gered mer þad til vilia, og ganged út til mín, þa skulud þer, hver ydar sem einn, af sínum vínvide og sínu fikiutrieeta, og úr sínum brunne drecka.

17. Þángad til eg kem og flyt ydur í eitt land, þad líka er sem ydart land, þad land huar korn og nyttvín er inne, þad land sem braud og víngardar hefir inne.

18. Láted eigi Ezechiam telia um fyrer ydur, þad hann seger: Drottinn mun frelsa oss. Hafa nockud Guder heidenna þioda frelsad hvør sitt land af hende konungsins i Assyria.

19. Hvar eru þeirra Guder til Hamath og Arpad? hvar eru þeir Guderner Sepharvaim? hafa þeir nockud frelsad Samariam af minne hende?

20. Hver er af allra þessara landa Gudum hafa frelsad sitt land af minne hende? so þad Drottinn skylde frelsa Jerusalem af minne hende?

21. Enn þeir þøgdu, og svørudu hønum engvu, þviad kongurenn hafde so boded og sagt: svared hønum engo.

22. Þá komu þeir Eliakim, sonur Hilkiás, hofmeistarenn, og Sebna, Canzelerenn, og Joah, sonur Assaphs, skrifarenn, med sundurrifnum klædum, og søgdu hønum frá ordum þess ædsta skeinkiara.

## 37. Capitule.

1. Enn þá ed kongurenn Ezechias heyrde þetta, reyf hann sín klæde, og tók á sig hriggdarbúning, og geck inn í hús Drottins.

2. Og sende Eliakim hofmeistaran, og Sebna Canzeleran, med þeim elstu kennemønnum, med hriggdar búninge klædda, til Prophetans Esaia, sonar Amos.

3. Ad þeir segdu til hans: so seger Ezechias: þetta er einn dagur hørmungarennar, straffunarennar og hádungarennar. Og er ei ólíkt sem þá børnenn eru ad fædingu komenn, enn þar er eingenn kraptur til ad fæda.

4. Ad Drottenn Gud þinn villde nockud heyra þau ordenn Rabsakis, hvern ed hans herra, kongurenn af Assyria, hafde sendt, til ad lasta þann lifanda Gud, og til ad lyta hann med soddann ordum, sem þad Drottinn Gud þinn hefir heyrt. Og þad þú villder eina bæn uphefia, fyrer þeim sem epter eru, sem enn eru epter.

5. Og þionustumenn kongsins Ezechiæ komu til Esaias.

6. Enn Esaias sagde til þeirra: seged so ydrum herra, Drottinn seger so: verþu ei hrædhur fyrer þeim ordum, sem þú hefir heyrt,

med hverium þad sveinar kongsins af Assyria hafa nidrad mer.

7. Siá þú, eg vil gera hønum eitt annad hugarfar, og han skal fá þad nockud ad heyra, þad hann fare heim aptur í sitt land og í sínu lande mun eg láta hann fyrer sverde falla.

8. Enn þá ed sá ypparste skeinkiare kom aptur, fann hann kongenn af Assyria strídande í móte Libna, þviad hann hafde heyrt, þad hann være i burt farenn fra Lachis.

9. Þvi þar kom þad rykte af Tirhaka Morlands konge, segiande: hann er útfarenn til ad strída á móte þer.

10. Þá ed hann heyrde nú þad, sende hann bod til Ezechia, og let segia hønum: seged Ezechia, kongenum i Juda, so: látþu eigi þinn Gud tæla þig, uppá þann ed þú treyster, og seger: Jerusalem mun eigi gefenn verda i hendur kongsins af Assyria.

11. Siá þú! þú hefir heyrt hvad kongarner af Assyria hafa gert øllum løndum og føreydt þau, og þú skyllder frelsadur verda?

12. Hafa nockud Guderner heidingianna frelsad þau løndenn sem míner fedur hafa fordiarfad? sem er Gosan, Haran, Rezeph, og børn Eden til Thelessar.

13. Hvar er sá kongurenn til Hamath? og sá kongurenn til Arpad, og sá kongurenn Borgarennar Sepharvaim, Hena og Jua?

14. Og þá Ezechias hafde teked vid brefenu af sendabodanum, og lesed þad, gekk han upp i hus Drottinns, og breidde þad út fyrer Drottne.

15. Og Ezechias badst fyrer til Drottins, og sagde:

16. Drottinn Zebaoth! þú Gud Israels, þú sem situr upp yfer Cherubim, þú alleinn ert Gud yfer øllum kongaríkium á jørdu, þu hefir skapad himenn og jørd.

17. Drottinn! hneig þú þín eyru og heyrþu þad; uppluk þínum augum, Drottinn! og siá þú! heyr þú øll ord Senacheribs, sem hann hefir sendt, til ad lasta þann lifanda Gud.

18. Sanninde eru þad, Drottinn! ad kongarner af Assyria hafa i eydelagt øll kongaríke, med þeirra løndum.

19. Og hafa þeirra gudum i elld kastad, þviad þeir voru einger Guder, helldur mannanna handaverk, stockar og steinar: þeir eru tortínder.

20. Enn nú, Drottinn Gud vor! hiálpa þú oss af hans hende, so þad øll kongaríkenn á jørdu reyne þad, ad þú alleina ert Drottinn.

21. Þá sende Esaias, sonur Amos, til Ezechia, og let segia hønum: so seger Drottinn Gud Israels, um þad þú hefir bedid mig vegna kongsins Senacheribs af Assyria.

22. Þá er þetta, þad er Drottinn seger af hønum. Jungfruenn dotter Zion hún forsmáer þig, og hæder ad þer, og dotturenn Jerusalem hrister høfuded epter þer.

23. Hvern hefir þú smánad og lastad? yfer hvern hefir þú þína raust upphafed? og upphafed þín augu i móte þeim heilaga í Israel.

24. Fyrer þína þionustu-menn hefir þú Drottne hádung tillagt, og seger: fyrer þann fiøldann min-

na hervagna em eg her upp farenn á hæder fiallanna, vid þá síduna Libanon, og hefe afhøggved hans háfann cedrus vid, med þeim hans útvøldum grenetrióm, og í gegnum em eg komenn hædernar til enda þessa skógarins í landenu.

25. Eg hefe uppgrafed og drucked vøtnenn: og hefe med mínum sólum uppþurkad øll þau hin nidrebyrgdu vatns bólenn.

26. Enn hefir þú eigi heyrt, þad eg fyrr meir gørde so, og þad eg breytte so fordum daga, og gere nú so einnenn, þad sterkar borger verde nidur brotnar í griotbrúgur?

27. Og þad þeirra innbyggendur verde veiker og skelfder, og til skammar gerder, og ad þeir verde ad tún=grasi og grænum jurtum, líka sem annad hey á ræfrum uppe, hvert ed uppvisnar ádur enn þad er fullvarid.

28. Enn eg þecke vel þinn bústad, þína útgøngu og inngøngu, og þitt grimmdar æde á mote mer.

29. Med því þá ad þú ølmast so á mote mer, og þad þin drambseme er þar upp komenn fyrer mín eyru, þá vil eg setia einn hring í þínar naser, og eitt beisl í þinn munn, og leida þig þann sama veg heim aptur, sem þú komst hingad.

30. Enn þad skal vera þer til merkis: et þetta áred þad undertrodna; þad annad áred hvad siálft vex; þad þridia áred nidur sáid og uppyrked. Planted víngarda, og eted þeirra ávøxtu.

31. Þvíad þeir hiner frelsudu af húse Juda, og þeir hiner eptervordnu munu enn aptur rótfestast under ser, og yfer sig ávøxt bera.

32. Þvíad af Jerúsalem munu enn útganga þeir sem epter eru vordner, og hiner frelsudu af fiallenu Zion. Svoddann mun gera vandlætingenn Drottins Zebaoth.

33. Þar fyrer seger Drottin so af kongenum í Assyria: hann skal eigi koma í þessa borg, og hann skal þar engre pílu ad skióta, og eingenn herskiølldur skal þar fyrer koma, engann virkis vegg skal hann í kringum bana gera.

34. Helldur skall hann aptur snúa þann sama veg, sem hann kom hingad, so ad eigi kome hann í þessa borg, seger Drottinn.

35. Þvíad eg vil vernda þessa borg, so ad eg hiálpe henne, minna vegna, og vegna míns þions Davids.

36. Þá fór eingell Drottins út, og sló í herbudum Assyrianna hundrud fim og áttatatíu þusunder manna. Og þá ed þeir stódu upp snemma um morgunenn, siá þú, þá lá þar allstadar fullt med daudum líkamum.

37. Og kongurenn af Assyria Senacherib svipte herbúdum, og fór burt, og snere heim aptur, og bleif til Ninive.

38. Og þad skede so, þá ed hann badst fyrer í húse Nisroch, Guds síns, þá slóu hann syner hans, Adromelech og Sar Ezer, med sverde, og þeir flydu í landid Ararat, og hans sonur Assar Haddon vard kongur í hans stad.

## 38. Capitule.

1. Á þeim tíma vard Ezechias daudsiúkur, og spámadurinn Esaias, sonur Amos, kom til hans, og sagde til hans: so seger Drottinn, rádstafa þú þínu húse, þvíad þú munt deya, og eigi lifa.

2. Þá snere Ezechias sínu andlite til veggiar, og bad til Drottins, og sagde:

3. Minnstu Drottinn! á þad, hvernenn ad eg hefe gengeð fyrer Þer í sannleika, med fullkomnu hiarta, og þad gert hvad þer hefir líkad! og Ezechias gret miøg.

4. Þá skede ord Drottins til Esaia, og sagde:

5. Far þú af stad, og seg Ezechia: so seger Drottinn Gud þins fødurs Davids: eg hefe heyrt þína bæn, og sed þín tár; siá þú, ad eg vil leingia þína lífdaga um fimmtan ár.

6. Og vil þig samt med þessare borg frelsa af hende kongsins í Assyria, þvíad eg vil vernd veita þessare borg.

7. Og haf þer þad til teikns af Drottne, ad Drottinn mun þad sama gera hvad hann hefir talad.

8. Siá þú! eg mun skuggann á sólarskífunne Achass láta aptur um tíu línur til baka ganga, yfer hverar ed hann hefir ádur geinged, so þad solenn skal ganga um tíu línur til baka aptur á sólarskífunne, yfer hveriar ad hún er þó ádur geingenn.

9. Þetta er sú ritningen Ezechiæ kongsins Júda, þá ed hann hafde siúkur verid, og var heilbrigdur vordenn af krankdæmenu.

10. Eg sagde: nú hlyt eg ad fara til heliar portdyra, þá minn tíme var úte, þá eg hugde mer þó leingur ad lifa.

11. Eg sagde: nú má eg eigi leingur siá Drottinn: iá, þann Drottinn í landenu þeirra lifendu; nu má eg eigi leingur siá þá menn, í hiá heim, sem sína æfe út lifa.

12. Mín æfe er lidenn, og frá mer burtu rymd, so sem annad fiármanna hreyse, og eg slít mína lífdaga í frá líka sem einn vefare. Hann kurrfygur mig upp, þú gerer eina ending vid mig frá deigenum til kvøldsins.

13. Eg hugsade: mætte eg enn lifa allt til morguns. Enn hann í sundur kramde í mer øll mín bein, líka sem annad leon, Þviad þú gerer út af vid mig á deigenum fyrer kvølldeð.

14. Eg tíste sem tranann, og svalann, og stunde líka sem dufa; mín augu villdu út springa. Drottinn! eg líd ánaud, lina þú mer!

15. Og hverssu vil eg þad epter segia! med því hann hefir tilsagt mer þad, og gerer þad einnen. Þar fyrer vil eg alla mína lífdaga fordast fyrer soddaun harmkvælingu minnar sálar.

16. Drottinn! þar af lifa menn, og þad lífed míns anda stendur med øllu í því sama, þviad þú lest mig sofna útaf, og lífgader mig.

17. Siá þú! um huggan var eg miøg angurbitenn, enn hiartanlega þá hefir þú ad þer tekeð mína sálu, so ad hún fordiarfadest ei, þviad þú fleyger øllum mínum syndum á bak þer aptur.

18. Þviad helvíted þad lofar þig eigi: so prísar þig og eigi daudenn. og þeir, sem nidur fara í grøfena, vænta eigi uppá þinn sannleika.

19. Helldur alleina þeir sem lifa, þeir lofa þig, so sem ad nú gere eg. Faderenn mun børnønum kunngiøra þinn sannleika.

20. Drottinn! hiálpa þú mer, þeir vilium ver spilamína loffsønga, so leinge ver lifum í húse Drottins?

## 39. Capitule.

1. Á þeim tíma sende Merodach Bal Adan, sonur Bal Adans, kongurenn til Babylon, bref og skeinkingar til Ezechiam, þviad hann

hafde heyrt, þad hann hafde siúk- ur verid, og være nú flirkur vordenn aptur.

2. Þvi vard Ezechias gladur, og synde þeim sitt fehyrdslu hús, silfur og gull, og jurter, dýrdleg smyrsl, og øll húsenn sinna vopna, og allann fesiód sem hann hafde. Þar var eigi þad neitt, ad Ezechias synde þeim eigi í sínu húse og í sínu Herradæme.

3. Þá kom prophetenn Ezechias til kongsins Ezechia, og sagde til hans: hvad segia þesser menn til? og hvadann komu þeir til þín? Ezechia sagde: þeir komu úr fiarlægum slodum til mín, sem er fra Babylon.

4. Enn hann sagde: hvad hafa þeir sed í þínu húsi? Ezechias svarade: allt hvad í mínu huse er, þad hafa þeir sed, og þar er ei þad neitt, ad eg hafe ei syndt heim í mínum fesiódum.

5. Og Esaias sagde til Ezechia: heyr þú ord Drottins Zebaoth!

6. Siá þú! sá time kemur, ad allt þad hvad í þínu huse er, og hvad þíner fedur hafa til samans dreged, allt til þessa dags, þad mun í burt flutt verda í Babylon, so ad þar mun eigi neitt epterblífa, seger Drottinn.

7. Þar ad auk munu þeir taka þín børn, sem út af þer munu koma, og þú munt uppfæda, og þeir munu hlióta ad vera herbergis sveinar í garde kongsins af Babylon.

8. Og Ezechia sagde til Esaias: Þad ord Drottins er godt sem þú seger, og sagde; se ad eins fridur og tryggd um mína lifdaga!

## 40. Capitule.

1. Huggeb, hugged mitt folk seger ydar Gud.

2. Talid vinsamlega vid Jerusalem, og predikeb henne, ad hennar strid hafe einn enda. Þviad hennar misgerningur er fyrergefenn, þviad hun hefir tvefalldlegt medteked af hende Drottins fyrer allar hennar synder.

3. Þar er ein rauſt eins predikara uti eidemørkenne. Tilreided þer veg Drottne: gered í obygdenne slettann veg vorum Gude!

4. Aller daler skulu upphefiast, og øll fiøll og hálsar skulu nidur lægd verda, og hvad óslett er, þad skal slett verda, og hvad ójafnt er þad skal eggslett verda.

5. Þviad dyrdenn Drottins skal opinnberud verda, og allt holld eitt med ødru mun siá, þad munnur Drottins talar.

6. Þar seger ein raust: predika þú, og hann sagde: hvad skal eg predika? allt holld er hey, og allur þess góde er so sem akursins blómstur.

7. Heyed þad uppþornar; blómstred visnar. Þviad ande Drottins blæs þar á. Já, folked er heyed.

8. Heyed þad uppþornar; blómstred visnar, enn ordet Guds vors blífur eylíflega.

9. Zion! þú sem predikar, far þú uppá hátt fiall. Jerusalem! þú sem predikar, hef þína raust upp med magt: hef þú upp, og ottast ei; seg þú borgnnum Juda, siáed, þar er ydar Gud!

10. Þvi siáed, Drottinn, Drottinn kemur volldugleganа, og hans armleggur mun drottna, Siáed! hans laun eru hiá hønum, og hans bitalingur er fyrer hønum.

11. Hann mun fødra sína hiørd sem einn hyrder: hann mun lømbunum safna á sína armlegge, og þau í sinne kiølltu bera, og leida lamba mædurnar.

12. Hver metur vøtnenn med hnefanum, og innelykur himenenn med spønnenne? og yfergrípur jørdena med einne þriggia tumlunga breidd? og vegur þau fiøllenn med einne vigt, og hálsana med einne vog?

13. Hver fræder anda Drottinns, og hver rádgiafe undervísar hønum?

14. Hvern spyr hann ad rádum, sá ed hønum skillningenn gefe, og kenne hønum þann veigenn rettarins, og kenne hønum þá vitskuna, og undervíse hønum þann veigenn skilningsins?

15. Siá þú! ad hiner heidnu eru aktader sem sá drope hver ad í skiolunne verdur epter, og svo sem ein lítil øgn er í metaskálenne blífur epter. Siá þú! ad eyarnar eru sem dupt-korn.

16. Libanon være hellst til lítill til elldsins, og hans villu-dyr eigi ánægianleg til brenne offursins.

17. Aller heidingiar eru eigi neitt fyrer hønum, og líka so reiknader sem hegóme, og þad sem eigi er pared.

18. Hverum viled þer þá eptterminda Gud? eda hvera líking viled þer hønum gera?

19. Meistarenn steyper vel eina mind, og gullsmidurenn yfergyller hana, og gerer þar silfur-kediu vid.

20. So líka hver hann formegnar fátæklegt upplyptingar-offur, sá útvelur ser þad tre sem eigi fúnar, og sæker klókann meistara þar til, sem gerer eitt líkneske, þad varanlegt se.

21. Vited þer eigi? heyred þer eigi? var ydur þad eigi kunngert fyrerframm? hafed þer eigi skiled þad í frá upphafe jardarennar?

22. Hann situr upp yfer jardarkringlune, og þeir ed þar uppá búa eru sem eingespretter. Hann, hver ed útþenur himenenn sem annad þunnt skinn, og breider hann út sem adra tialldbúd, þar ínne búed er.

23. Hver ed høfdingiana gerer ad engu, og þá yferdomarana á jørdunne gerer ad hegoma.

24. So sem ad hefde þeirra stofn hverke plantan ne sæde, ne nockora rót í jørdunne, so ad þeir, nær ed vindurenn blæs á mille þeirra, upp þorne, og einn hvirfel-vindur þeim burtfeyke sem ødru gras-stráe.

25. Hverum viled þer þá epterminda mig, þeim eg skyllde líkur vera? seger sá hinn heilage.

26. Upphefed ydar augu í hædernar, og sked, hver hefir sodan hlute skapad, og utleider þeirra her med tølu? hann sá sem þá alla kallar med nafne. Hanns máttur og øflugur kraptur er so mikell, so þad kann eigi í einu brestur ad vera.

27. Hvar fyrer seger þú þá Jacob, og talar so Israel? minn vegur er folgenn fyrer Drottne, og minn dómur hann geingur framm hiá Gude mínum.

28. Veit þu eigi? hefir þú eigi heyrt? ad Drottinn sa eylífe Gud, sem endemørk jardarinnar hefir skapad, hann verde hverke þreyttur, ne módur, hans skillningur er órannsakanlegur.

29. Hann gefur þreyttum krapt, og styrkleik nógann þeim vanmáttugu.

30. Hiner úngu verda móder og máttlauser, og þeir æsku-menner falla.

31. Enn þeir sem vona uppá Drottinn þeir fá nyann krapt, so ad þeir uppstiúge med vængium sem erner, so þeir hlaupe og verde

eigi lúner, so þeir gange og mæðest eigi.

## 41. Capitule.

1. Látt eyarnar þyrer mer þeigia, og folked stirkia sig. Látt þa koma her framm ad, og tala nú: látum oss eigast lög vid.

2. Hver hefir hinn rettferduga af austrenu uppvaked? hver kallade hann, þad hann geinge? hver gaf heidnar þiódir, og konganna fyrer hönum, so ad hann vard þeim yfermáttugur, og gaf þá hans sverde, líka sem dupt, og hans boga sem burtfeykt grasstrá?

3. So þad hann veitte þeim eptersór, og fór þar í gegnum med fride, og hafin mæddest alldrei á þeim vegie.

4. Hver gerer þad? og verkar þetta? og kallar alla menn, hvern epter ödrum frá upphafe? eg em sa Drottinn, bæde hinn fyrste og sídarste.

5. Þá ed. eyarnar sáu þad, hræddust þær, og endemerkur jardarennar skelfdust vid þad. Þeir nálægdu sig og komu hingad.

6. Einn hiálpade ödrum, og sagde til síns náunga: verþu hugdraustur.

7. Timburmadurenn tók gullsmidenn til sín, og þeir gerdu med hamrenum piátred slett á stedianum, og sögdu: þad skal fara vel: og þeir festu þad med nöglum, so ad þad skylde eigi skeika.

8. Enn þú Israel minn þionn! Jacob! þann eg hefe útvaled, þú sæded Abrahams míns hins elskuliga!

9. Eg sem þig hefe stirkt allt frá Veralldarennar endemerkum, og hefe kallad þig burt frá hennar volldugum, og sagde til þín. Þú skallt minn þionn vera, þvíad eg útvel þig, og forlegg þig eigi.

10. Ottast eigi: eg em med þer: víkþú eigi, þvíad eg em þinn Gud: eg stirke þig; eg hiálpa þer einnenn; eg helld þer vid, fyrer þá hægre höndena míns rettlætis.

11. Siá þú! þeir skulu til hádungar og til skammar verda, aller þeir sem þer eru reider, þeir skulu verda sem ecke, og þeir menn sem deila á móte þer skulu fyrerfarast.

12. So ad þú meiger spyria epter þeim, og munþu eigi þá finna. Þeir menn sem þræta vid þig skulu verda sem ecke neitt. Og þad folk sem strider vid þig skal hafa einn enda.

13. Þvíad eg em Drottin Gud þinn, sem stirker þína hægre hönd, og til þín seger: ottast eige, eg hiálpa þer.

14. So verþ ei hræddur þú madk-korned Jacob, þer fátæker hópar Israel! eg hiálpa þer, seger Drottinn, og þinn frelsare, sá heilage i Israel.

15. Siá þú! ad eg hefe gert þig ad hvössum nyum þreskevagne, sem agnúa hefir, so ad þú skallt fiöllenn i sundur þreskia og i smátt mola, og hædernar gera sem agner.

16. Þú skallt sundurdreifa þeim, so ad vindurenn bláse þeim burt, og hvirsel vindurenn feyke þeim þedann. Enn þú mun gladvær vera í Drottne, og mun hrósa þer af þeim heilaga i Israel.

17. Þeir fátæku og volúdu leita ad vatne, og þar er eigi neitt: þeirra túnga þornar upp af þorsta. Enn eg Drottin vil bænheyra þá, eg Gud Israels vil eigi yfergefa þá.

18. Helldur vil eg vatns ráser opna á hædum uppe, og vatnsbrunna á midiu slettlendenu. Eg mun gera eydemørkena ad stoduvøtnum, og þad þurra landed ad uppsprettu brunnum.

19. Eg mun gefa í obyggdenne cedrusvid, furu, myrte, og oliutre: eg mun gefa á slettlendenu grenetren, beike:videnn, og busbom, hvert med ødru til samans.

20. So ad þeir siáe, og þecke, og merke, og skile ásamt; ad hønd Drottins hafe þvilikt gert, og sá hinn Heilage í Israel hafe skapad slikt.

21. So láted ydar málefne hingad koma, seger Drotteun: hafed þad hingad hvar þer standed uppá, seger sá kongurenn í Jacob: Láted þá her framm ganga, og kunngera þad fyrer oss hvad epter komande er.

22. Kunngered oss og spáed eitthvad fyrer: láted oss med vorum hiørtum hafa þar vakt uppá, og formerkia, hvernenn þad skal seinna meir til ganga.

23. Edur láted oss heyra hvad epterkomande er. Kunngered oss þad, hvad her epterá koma mun, þá vilium ver formerkia þad, ad þer erud Guder. Trats, gered annad hvert godt, edur skadseme, þá vilium ver segia þar út af, og siá þad til samans.

24. Siánd! þer erud út af engu, og ydar gerningur er af engu, og ad útvelia ydur, er andstyggelegt.

25. Enn eg uppvek einn út af nordrenu, og kemur af uppgøngu sólarennar. Hann mun í mínu nafne predika, og hann mun ganga yfer hina volldugu, sem yfer annann jardar leyr, og hann mun nidur troda þann saurenn, líka sem annar leyrkerasmidur.

26. Hver kann nockud ad kunngera út af upphafenu, þá vilium ver skilia þad, edur spá fyrer framm, þá vilium ver segia: þú seger rett. Enn þar er sá eingenn ed kunngere; eingenn sá sem nockud lætur heyra; eingenn sem kann ad heyra eitt ord af ydur.

27. Eg em fyrstur sem til Zion seger: siá þú! þad sama er þad, og eg gef Jerusalem predikara.

28. Enn eg lyt þangad: enn þar er eingenn rádgiafi. Eg adspyr þá, enn þeir andsvara þá engu.

29. Siá þú! þad er allt samann eigi utann armæda og engu neytt med þeirra gerningum: þeirra afguder eru vindur og hegome.

## 42. Capitule.

1. Siá þú! þad er minn þionn. Eg helld hønum vid, og minn sá hinn útvalde, á hverium mín sála hefir gedþeckne. Eg hefe hønum minn anda gefed: hann munn dómenn utflytia medal heidenna þioda.

2. Hann mun hverke kalla ne hrópa, og hans reust mun eigi heyrast á strætunum.

3. Þann brakada reyrenn mun hann eigi í sundur brióta, og þann riúkanda línkveik mun hann eigi utslockva. Hann munn kenna ad hallda dómenn med sannleiknum.

4. Hann mun eigi mæglunarsamur ne hrædelegur vera, so ad hann á jørdu rettenn uppvyre, og eyarnar munu epter hans løgmæle væna.

5. So seger Gud Drottinn sá ed himenenn skapar og útbreider, sá ed jørdena gerer og hennar ávøxt, sá ed folkenu, þvi sem þar er uppá, andardrátt gefur, og andann þeimsem þar uppá ganga:

6. Eg Drottinn hefe kallad þig med rættlæte, og hefe teked þig vid

þína hønd, og hefe þig varad þig, og hefe þig gefed til sáttmála medal folksins, til ljossens heidenna.

7. So ad þú skallt opna augunn blindra, og herteкna og burtleida úr fangelsenu, og þá sem þar sitia í myrkrunum, í burt úr dyblissunne.

8. Eg Drottinn, það er mitt nafn, og mína dyrd vil eg engum ødrum gefa, ne mitt lof afgudunum.

9. Siá þú! hvad epterkomanda er, kunngere eg fyrer framm, og hid nya giøre eg vitanlegt, ádur enn þad uppgeingur, þá læt eg ydur þad heyra.

10. Synged Drottne nyan lofsøng; hans lofstyr er allt til veralldarennar enda, þeir í siónum fara, og hvad þar er ínne, þær eyarnar, og þeir sem þar ínne búa.

11. Kalled hátt þer eydemerkur og borgernar þar ínne, med þorþunum, þar sem Kedar byr, þeir gefa af ser fagnadar hlióð sem í griot- hellrunum byggia, og kalla af hædum fiallanna.

12. Láted þá gefa Drottne dyrdena, og hans lof kunngera í þeim eyønum.

13. Drottinn mun útfara sem ein hetia; hann mun vandlæted uppvekia sem einn bardagamadur, hann mun glediast og fagna, hann mun sína óvine yfer-vinna.

14. Eg þeige um stund, og em hlióður, og aptra mer. Enn nu vil eg so hátt hrópa, sem su ed barn fæder. Eg vil foreyda þeim og uppsvelgia þá alla.

15. Eg vil eyda fiøll og hálsa, og allt þeirra gras upp þurka. Eg vil vatnsføllenn ad eyum gera, og stødu-vøtnenn uppþurka.

16. Enn þá hina blindu vil eg leida á þeim veige, sem þeir þeckia eigi: eg vil fyrer þeim myrkrenn ad liose gera, og þad jafna sem óslett er. Sodann vil eg þeim gera, og eigi yfergefa þá.

17. Enn þeir sem treysta uppá gudena, og segia til þeirra steyptu líkneskianna: þer erud vorer guder! þeir skulu aptur til baka snúa, og til skammar verda.

18. Heyred þer hiner daufu, og lyted hingad þer hiner blindu, so ad þer siáed?

19. Hver er so blindur, sem minn þionn? og hver er so daufur sem minn sendeбode, þann eg sende? hver er so blindur, sem sa hinn fullkomne? og so blindur sem þionn Drottins?

20. Menn predika ad sønnu miked, enn þeir hallda þad eigi. Þeim er nóg sagt, enn þeir vilia þad eigi heyra.

21. Þó vill Drottinn þeim vel fyrer hans rettlætis saker, uppá þad, ad hann kostulegt og miked gere løgmáled.

22. Þad sama er eitt rænt og rupland folk: þeir eru aller fiøtrum vafder í holunum, og niðurbyrgder í myrkvastofunne; þeir eru ad herfange vordner, og þar er eingenn sem seger: gefed þad aptur.

23. Hver er sa á medal ydar sem ser láte slíkt í eyrum loda, sa ed giætur þar ad gefe, og því hlyde, hvad her epter mun koma?

24. Hver hefir yfergefed Jacob til gripdeillda, og Israel þeim ránsmonnum? hefir eigi Drottinn gert þad, móte hverium ad ver hofum syndgast? og þeir villdu eigi á hans vegum ganga, og hlyddu eigi hans løgmále.

25. Þar fyrer hefir hann uthellt yfer þá grimmd sinnar reide, og einne stridsmagt, og hefir so uppbrennt þá allt umkring, enn þeir formerkia þad eigi, og hefir kveikt

elld um þá, enn þeir leggia það eigi uppá hiartad.

## 43. Capitule.

1. Og nu seger Drottinn, sá ed þig hefir skapad Jacob! og þig hefir gert Israel! ottast þú eigi, þvíad eg hefe frelsad þig, eg hefe kallad þig med þínu nafne, þú ert minn.

2. Þvi nær ed þú geingur í gegnum vøtnenn mun eg hiá þer vera, so ad vatns føllenn skulu eigi drekkia þer. Og ef þú geingur í elldenn, skall þú eigi brenna, og sá elldslogenn skal eigi upp brenna þig.

3. Þvíad eg em Drottinn Gud þinn, sá hinn heilage í Israel, þinn hiálpare. Eg hefe Egyptaland, Morland og Seba gefed í þinn stad til forlíkunar.

4. Af því þú ert so dýrt virdtur í mínu auglite, so hlýtur þú einnenn vegsamlegur ad vera, og eg elska þig, þar fyrer gef eg menn í þinn stad, og þióderner fyrer þína sálu.

5. Þar fyrer þá óttast þú nu eigi, þvíad eg em hiá þer: eg vil af austre þitt sæde her framm leida, og ur vestre þer til samans safna.

6. Og eg vil móte nordrenu segia, gef her framm; og í mót sudrenu, hamla hú eigi. Lát her framm koma mína sonu af fiarlægdenne, og mínar dætur fra veralldarennar enda.

7. Alla þá sem med mínu nafne nefnder eru, sem er, þá eg hefe skapad til minnar dyrdar, og þá tilreidt, og gert.

8. Lát þu her framm koma þad blinda folked, hvert ed þó hefir augunn, og þá hinu daufu, sem þó hafa eyrunn.

9. Látid alla heidingia koma saman í hóp, og folkid samannsafnast. Hver er þar á medal þeirra sem soddann kunne ad kunngera, og láte oss þad heyra fyrerframm hvad ske skal. Láted þá sína votta framm leida og sanna þad, þá munu menn heyra þad, og segia, þad er sannleikur.

10. Enn þer erud míner vottar, seger Drottinn, og minn þionn þann eg útvaled hefe, so ad þer vited þad, og trued mer, og skiled þad, ad eg se þad. Fyrer mer er eingenn gud gerdur; so mun og einnenn epter mig eingenn vera.

11. Eg, eg em Drottenn, og þar er eingenn hiálpare utan eg.

12. Eg hefe kunngert þad, og eg hefe einnenn hiálpad, og eg hefe láted segia ydur þad, og þar er eingenn framande (Gud) á medal ydar. Þer erud míner vottar, seger Drottinn, so em eg Gud.

13. Og Eg em og einnen ádur enn þad nockur dagur var til: og sá er eingenn sem út af minne hende kunne ad frelsa, eg verka þad, hver vill hamla því?

14. Só seger Drottinn ydar frelsare, sa hinn heilage í Israel: ydar vegna þá hefe eg sendt í Babylon, og hefe allar lokur nidur fleigid, og þá kveinande Chaldeos úti skipenn jagad.

15. Eg em sa Drottinn ydar hinn heilage, eg sem Israel hefe skapad, ydar kongur.

16. So seger Drottin, sa ed í sionúm veginn, og í straungum vøtnum brautena gerer.

17. Hann sá ed her útleider vagna og víghesta, herlid og magt, so ad þeir ligge í einum hóp og standa ei upp, so ad þeir útslokne, líka sem annar línkveikur útslokvar.

18. Hugsed eigi á hid gamla, og aktid eigi þad sem fyrr meir

var. Þvi fiáed, eg vil gera nockud nytt.

19. Nu skal þad uppvaxa, so ad þer munuð þad reyna; ad eg gere vegu í eydemørkenne, og vatnsstrauma í óbyggdenne.

20. Se ad mig príse villudyrenn á mørkunum, drekarner og strússfuglarner. Þvíad eg mun vatnid í eydemørkenne, og vatnsstraumana í obyggdenne gefa ad drecka mínu fólke, mínum útvøldum.

21. Þetta folk hefe eg tilreidt mer, þad skal mitt lof frammtelia.

22. Eige so, ad þú hafer kallad mig Jacob! eda þad þú hafer vegna mín erfidad Israel!

23. Mer hefir þú ad sønnu eigi fært þá saudena þíns brenne-offurs, ne mig heidrad med þínum fornfæringum; eg hefi eigi lyst til þinnar þionustu í matar-offrenu, eg hefe og einnenn enga lystíng á þínu erfide uti reykelsis veifuninne.

24. Þú hefir eigi keypt mer kalmes fyrer pening. Mig hefir þú eigi fyllt med feite þíns offurs, já, þú hefir gert mer erfidesmune í þínum misgerdum.

25. Eg, eg em hann, sem afmáe þínar synder minna vegna, og minnest eigi þinna synda.

26. Minn þú mig á; lát þú oss eigast løg vid, seg þú framm hvørnenn þú villt rettlátur vera?

27. Þíner forfedur hafa syndgast, og þíner læremeistarar hafa misgert á mote mer, þar fyrer þá hefe eg saurgad þá høfdingia helgedomsins, og hefe Jacob ad bølvan gert, og Israel ad hádungu.

## 44. Capitule.

1. Svo heyr nu minn þionn Jacob! og Israel! þann eg hefe útvaled.

2. Svo seger Drottinn, sá ed þig hefir gert og tilreidt, og sá ed þer hiástod veiter allt frá modurkvide: óttast þú eigi minn þionn Jacob, og þú hinn ágætlige, hvern eg hefe útvaled!

3. Þvíad eg mun rotnum úthella vatne yfer hina þyrstu, og vatnsstraumum yfer hina þurru. Eg vil úthella mínum anda yfer þitt sæde, og mina blessan yfer þína epterkomendur.

4. So ad þeir skulu vaxa sem gras, og so sem víder vid vatnslæke.

5. Þesse mun segia: eg em Drottins, og þinn mun nefndur verda med þvi nafnenu Jacob. Og þesse mun med sinne hende tilskrifa sig Drottne, og mun medur þvi nafnenu Israel nefndur verda.

6. So seger Drottinn, sá konungurenn Israels, og hans frelsare, Drottenn Zebaoth: eg em hinn fyrste, og eg em hinn sídarste, og fyrer utann mig er eingenn Gud.

7. Og hver er mer líkur? eg sem kalla og kunngere, og tilreide mer þad: eg sem frá veralldarennnar upphafe innsette folkidtáted þá kunngera þeim teiknenn, og hvad koma skal.

8. Óttist þer eigi, og hræðest eit hefe eg eigi í þad sinn láted þig þad heyra og kunngert þer þad? Þviad þer erud míner vottar, hvert er þar nockur annar Gud utann eg? þar er ecke athvarf, og veit þó engann annann.

9. Þeir sem skurgod smída eru aller samt hegome, og þeirra hid kostulegasta er til engrar nytsemdar. Þeir eru þeirra vottar, og siá eigi neitt, skinia og eigi neitt,

þar fyrer þá hliōta þeir til skammar ad verda.

10. Hverer eru þeir sem einn afgud gera, og steypa eitt skurgod, þad sem til einskis er neytt?

11. Siá! aller þeirra þluttakendur verda til skammar, þviad þad eru hagleiks-meistarar af mønnum til. Þó þeir kæmu aller til samans, þá blyte þeir þó líka vel ottablandner ad vera um sig, og til skammar ad verda.

12. Einn smídar járned med tungenne, og vinnur þad í glódenne, og til reider þad med hamrenum, og erfidar þar uppá med øllu afle sins handleggs; þoler einnenn sveingd, þangad til hann orkar eigi meir; drecfur og eigi vatn, þangad til ad hann mædest.

13. Hinn annar smídar træd, og mæler þad med mæle þrædenum, og teiknar þad med raudsteinenum, og høggur þad umkring, og málar þad af med cirklenum, og gerer þad so sem adra manns mind, so sem einn fagrann mann sem í húsenu byr.

14. Hann gengur dieʒst þar ad á medal trianna í skogenum, þad hann cedrusvidenn nidur høgge, og take beykevid og eiketre, já! eitt plantad cedrustre, og þad sem af regnenu er uppvaxid, eg þad mønnum være til ellde vidar.

15. Hvar af menn taka þad, hvad þeir verme sig vid, og þad menn uppkveike, og bake þar braud vid. Af þvi gerer hann eitt God, og tilbidur þad; hann gerer þar einn afgud út af, og nidurkrypur þar fyrer.

16. Helmingenn þar frá uppbrenner hann í ellde, og yfer ødrum helmingenum etur hann kiøt. Hann steiker steik, og mettar sig, vermer sig einnenn, og seger: hei já! eg em heitur vordenn, og sæ mína lysting á ellderum.

17. Enn þad annad, sem epter er, gerer hann ad Gude, so ad þad se hans afgud, þar ed hann knekrypur fyrer, og frammfellur, og tilbidur, og seger: frelsa þú mig, þviad þú ert minn Gud!

18. Þeir vita eigi neitt, og skilia eigi neitt, þviad þeir eru forblindader, so ad þeirra augu siá eigi, og þeirra hiørtu kunna eigi ad skilia.

19. Og þad gengur eigi í þeirra hiarta, þar er og engenn skinseme ne vitsmúner fyrer hendum, so ad þeir hugleiddu þad, helmingenn þar frá hefe eg med ellde uppbrennt, og á kolunum hefe eg braud bakad, og kiot steikt, og þad eted, og skyllde eg nu af þvi sem auk være, gera eina svivirding, og skyllde eg kne kriúpa fyrer einum tre drumba?

20. Hann fæder sig af øsku, hans táldregna hiarta leider hann afvega, ad hann kann eigi sína sálu ad frelsa. Enn þó hugleider hann eigi ad þvi; eru þad eigi svik sem mín hægre hønd gerer?

21. Minnst þu þad Jacob og Israel! þviad þú ert minn þionn, eg hefe tilreidt þig, ad þú sert minn þionn, Israel forgleymdu mer eigi.

22. Eg afmae þinar misgerder sem annad ský, og þinar synder sem þoku. Snú þer til min, þviad eg frelsa þig.

23 Lofsyngeb þer himnar! þviad Drottinn hefir gert Kalla hatt þú jørd þar nidre! þer fiollenn! vered gladvær med fognude, skógurinn og øll tren þar inne, þviad Drottinn hefir endurleyst Jacob, og er dyrdarsamlegur í Israel.

24. So seger Drottinn þinn endurlausnare, sá ed þig hefir til-

reidt í frá móðurkviðe. Eg em sá Drottinn sem alla hlute gerer, hver ed himenenn útbreider alleina, sá ed jørdena útvídkar án tilstirks.

25. Hver ed teiknenn sannsagnaranna ónyter, og spásøgumennina ad heimsku gerer. Sá ed vitringunum snyr tilbaka, og þeirra vísdóm ad fávitsku gerer.

26. Enn stadfester ordid síns þións, og fullkomnar ráded sinna sendebóda: sem til Jerusalem seger: ver þú byggd! og til stadanna í Juda: vered byggder! og eg upprette þeirra foreyding.

27. Eg sem sege til diupsins: þverra þú; og til vatns straumanna: þurkist upp!

28. Eg sem sege til Cyrus: sá er minn hyrder, og hann skal fullkomna allann minn vilia, so ad sagt verde til Jerusalem: ver þú uppbyggd! og til musterisins: þú skalt grundvallast!

## 45. Capitule.

1. Svo seger Drottinn til Cyrus síns hins smurda, hann eg tek vid hans hægre hønd, so þad eg legge under hann heidnar þióder, og kongunum sverded afleyse. So ad fyrer hønum verde dyrnar upplátnar, og ad þau borgarhlidenn blífe eigi tilluckt.

2. Eg mun ganga framme fyrer þer, og hædernar slettar gera; eg mun kopar hurdernar sundursla, og járn grindurnar sundurbrióta.

3. Og eg mun gefa þer þá folgna fiársióduna, og þau nidur byrgdu clenodia. So ad þú viter, þad eg Drottinn Gud Israel hafe þig kallad med þínu nafne.

4. Vegna Jacobs míns þións, og vegna Israels míns hins útvalda. Já! eg kallade þig med nafne, og nefnde þig, þá ed þú þeckter mig enn eigi.

5. Eg em Drottinn, og engenn annar; þar er og engenn Gud utann eg. Eg hefe þig útbryniad, þá ed þú þeckter mig enn ei.

6. So ad menn vite, bæde frá uppgøngu sólarennar, og so frá nidurgøngu sólarennar, þad án mín se eigi neitt. Eg em Drottinn og engenn annar.

7. Eg sem gere liósed, og skicka myrkrinu: eg sem fridenn gef, og skicka hid vonda. Eg em Drottinn sem allt þetta gerer.

8. Drýped þer himnar her ofann af, og skyenn þau rigne rettvísenne. Jørdinn liuke sig upp, og fære hiálpræðid; og rettvísenn vaxe þar upp med einnenn. Eg Drottinn verka þad.

9. Vei þeim sem møglar móte sínum skapara, sem er skurned med ødrum leyrkerum. Seger nockud leyrinn til síns leyrkerasmids: hvad gerer þú? eigi andsyner þú þínar hendur á þínu verke.

10. Vei þeim sem seger til fødur síns, hvar fyrer hefir þú geted mig? og til kvinnunnar, hvar fyrer sædde þú?

11. So seger Drottinn, sá hinn heilage í Israel, og hans utskapari: spyred mig ad teiknum; vísid mínum børnum, og verkum minna handa til mín.

12. Eg hefe jørdena gerk, og manninn þar uppá skapad: eg em hann, hvers hendur ad himenenn hafa útbreidt, og hefe øllum hans herskara bodid.

13. Eg hefe hann uppvaked í rettvíse; og alla hans vegu vil eg jafnsletta gera. Hann skal mína borg uppbyggia, og mína hertekna lausa láta, eigi fyrer peninga,

ne fægiafer, seger Drottinn Zebaoth,

14. So seger Drottinn: síslan Egyptskra, og útveiger þeirra Morlendinganna, og so það hávaxna fólked til Seba, mun undergefa sig þer, og þíner eigennleger verda. Þeir munu þer epterfylgia, í fiötrum munu þeir ganga, og fyrer þer munu þeir nidurfalla, og þig grátbæna. Þviad Gud er hiá þer, og þar er annars engenn Gud framar.

15. Sannarlega þá er þú einn fólgenn Gud, þu Gud Jsraels lausnarenn!

16. Enn þeir afguda gerendurner hliota aller tilsamans med skømm og smán ad standa, og allersaman med vanvirdu í burt ad ganga.

17. Enn Jsrael mun frelsast fyrer Drottinn, fyrer eina eylífa endurlausn, og mun ei til skammar, ne til hádungar verda um alldur og æfe.

18. Þviad so seger Drottinn, sá ed himenenn hefir skapad, sá Gud sem jørdena hefir tilreidt, og hana hefir gert og tilbúed, og hefir ei gert hana, það hún skule tóm vera, helldur hefir hann tilbúed hana, so það menn skulu þar uppá búa: eg em Drottinn, og þar er engenn annar.

19. Eg hefe ei í leynum talad, í myrkum stødum jardarennar. Eg hefe eigi til sædis Jacobs forgefens sagt: leited mín, Þviad eg em Drottinn, sem af rettvísenne tala, og kunngere það, hvad rett er.

20. Láted safna ser samann, og koma her framm tilsamans, þær hetiur heidingianna, sem eigi neitt vita, og flæda ser framm med drumbum sinna skúrgóda, og grátbæna þann gudinn, sem eigi kann ad hiálpa.

21. Kunngered það, og komed her framm ad, og taked rád tilsamans. Hver hefir láted segia þetta í frá fordum tídum, og þá þegar kunngert það sama? hefe eg Drottinn eigi gert það? og þar er engenn annar Gud utann eg, einn rettlátur Gud og hiálpare, og án mín er þar eingenn.

22 Snúest til mín, þá munud þer hiálplegar verda, allar endemerkur jardarennar! Þviad eg em Gud og engenn annar.

23. Eg sver vid siálfann mig, og eitt ord rettlætesins útgengur af mínum munne, þar skal það vid blífa, sem er: ad fyrer mer skulu sig beygia øll kne, og allar tungur sveria, og segia:

24. J Drottne hefi eg rettlæte og styrkleik. Slíker munu og einnenn til hans koma. Enn þeir aller, sem hønum móte standa, hliota til skammar ad verda.

25. Þviad í Drottne mun rettlætast allt það sæded í Jsrael, og hrósa ser af hønum.

26. Bel er nidur beygdur. Nebo er nidur fallenn: þeirra afgudar eru villu dyrunum og fenadenum ad hlutskipte ordner, so ad þeir af þeirra byrdarþunga eru mædder.

27. Já! þeir hrasa og beygia sig aller samann, og kunna eigi þeim byrdarþunga af stad ad koma, helldur hlytur þeirra sál ad ganga í fángelsed.

## 46. Capitule.

1. Heyred mer, þer af húse Jacobs, og aller hiner epterblifnu af húse Jsraels, þer, hvera eg ber í mínu líse, og med hvera eg geng!

2. Já! eg vil bera ydur allt til

elle daga, og þangad til það þer gráer af hærum verdid, eg vil gera það, eg vil upphefia, og bera, og frelsa.

3. Epter hverum minded þer? og hverum samlíked þer mig þá? vidur hvern mæled þer mig, þeim ad eg skule líkur vera?

4. Þeir hrista gulled úr pungenum, og vega þar út silfred med vogenne, og giallda laun gullsmidnum, ad hann gere einn Gud þar út af, fyrer hverum ad þeir knekriúpa og tilbidia.

5. Þeir taka hann uppá axlernar, og bera hann, og setia hann á sinn stall: þar stendur hann, og kemst eigi í burt úr sínum stad. Kallar nockur til hans, þá andsvarar hann eigi, og hiálpar hønum ei í burt úr sinne ánaud.

6. Minnest þó á þetta, og vered stadfaster, þer yfertrodslu menn! ganged inn í ydart hiarta.

7. Hugsed um það framm farna frá gamallre tíd, þviad eg em Gud, enn engenn annar, sá Gud þess líke ed hverge er.

8. Eg sem ádur kunngere það, hvad her epterá koma skal, og ádur fyrre enn það sker, og sege: minn ásetningur stendur stødugur, og eg gere allt hvad mer vel þocknast.

9. Eg kalla einn fugl úr austrinu, og einn mann, sem minn ásetning mun gera, úr fiarlægu lande. Hvad eg sege; það læt eg framm koma. Hvad eg hugsa; það gere eg einnenn.

## 47. Capitule.

1. Heyred mer þer stollthiartader, þer sem langt erud frá rettlætenu!

2. Eg hefe mitt rettlæte í nánd fært, það er eigi fiærre, og mitt hiálpræde það dvelur eigi vid, þviad eg vil til Zion hiolpræded gefa, og í Israel mína dyrd.

3. Stíg þú nidur jungfrú, þú dotturenn Babylon! settu þig í molldar dupt; settu þig á jørdena. Þviad dotturenn þeirra Chaldeara hefir engann stól leingur: menn munu ei lengur kalla þig, þú hin smá varna og kræselega.

4. Tak þú kvernena og mala þú mioled. Utgreid þú þínar hárflettur: lát berann þinn fót. Afklæd þína skøslunga. Vad þú vatned, so ad þinn leyndar limur í liose látist, og þín smán siáest.

5. Eg vil hefna mín, og eingenn madur skal þess fá afbeded af mer.

6. (Soddann gerer) vor lausnare, hver ed heiter Drottinn Zebaoth, sá hinn heilage í Israel.

7. Set þú þig í kyrrdena: gack þú inn í myrkrenn þú dotter þeirra Chaldeara! þviad þú skallt ei lengur kallast frú yfer kongaríkiunum.

8. Þviad þá ed eg var reidur vid mitt fólk, og eg óhelgade mína arfleifd, yfergaf eg þá í þína hønd. Enn þú synder þeim enga miskunseme, og einnenn yfer hina gømlu gerder þú þitt ok ofþungt.

9. Og hugsader eg em ein drottning eylífflega, þú hefir hingad til enn nú eigi sett þer það í hiarta, og eigi hugsad epter þvi, hvernen það skylde med þeim her epterá seirna meir verda.

10. So heyr nú þetta, þú sem í sælgæte lifer, og so ugglaust situr, og seger í þínu hiarta: eg em, og engenn ønnur: eg mun eingenn eckia verda, ne óbyria verda.

11. Enn soddann mun þer hvorttveggia brádlega koma á einum deige, það þú sert bæde eckia og

óbyrja, já fullkomlega munu þeir yfer þig koma, fyrer saker fiølda þinna galldramanna, og vegna þinna særingarmanna, þeirra eð mikell flocfur er hiá þer.

12. Þviad þú hefir treyst uppá þína illzyrne, þá eð þú hugsader: menn siá mig eigi. Þín speke og kønska hefir fyrerfomed þer, og þú seger í þínu hiarta: eg em, og eingenn ønnur.

13. Þar fyrer mun yfer þig koma ein ógæfa, so þú veitst ei hvenær hún brytst framm, og eitt slis mun yfer þig falla, hvert þú munt eigi kunna ad sætta, Þviad þar mun skyndelega ein styrisøld yfer þig koma, þar þú vænter eigi.

14. So gack nú framm med þína særingarmenn, og med þann flockenn þinna galldra manna, medal hverra eð þú hefir þiád þig í frá barnæsku þinne, hvert þú kannt nockurt ráð ad finna, hvert þú kannt ad efla þig.

15. Þviad þú ert þreytt af fiøldanum þinna rádagerda. Lát her framm koma og þer hiálpa meistarana himentunglagangsins, og þá stiørnulistar mennena, sem epter tunglkomunum reikna, hvad yfer þig mun koma.

16. Siá þú! þeir eru sem annad hálmstrá, þad elldurenn uppbrenner: þeir kunna ei sitt líf ad frelsa fyrer þeim ellds loganum. Þviad þad mun eigi vera ein elldsglóð, þar ed menn verma sig vid, edur einn elldur, er menn meiga í kringum sitia.

17. So eru þeir þíner høndlunar menn, á medal hverra ed þú hefir erfidismune haft í frá barnæsku þinne, hver einn þeirra mun sinn veg hingad og þangad í burt ráfa, og þú hefir enganu hiálpara.

## 48. Capitule.

1. Heyred þad, þer af húse Jacobs, þer sem heited ad nafne Israel, og út af vatnenu Juda útrunner erud! þer sem sverid vid nafned Drottins, og minnest þess Guds í Israel, enn þó eigi í sannleika, ne rettlæte.

2. Þviad þeir nefna sig út af þeirre heilagre borg, og trássa uppá Gud Israels, sem heiter Drottinn Zebaoth.

3. Eg hefe ádur fyrre kunngert þetta hid ókomna: út af mínum munne er þad frammkomed, og eg hefe láted þad segia: eg gjøre þad og einnenn skyndelega, ad þad kome.

4. Þviad eg veit, ad þú ert harðúdigur, og þinn hnacke er ein járn ædur, og þitt enne af kopar.

5. Eg hefe kunngert þer þad fyrer framm, og eg hefe láted segia þer þad ádur enn þad er komid, uppá þad, ad þú meiger eigi segia: minn afgud hann gerer þad, og mín líkneskia og skurgod hefir bodid þad.

6. Þetta allt heyrer þú og ser, og hefir þó eigi kunngert þad, þviad eg hefe ádur fyrer framm nockud nýlegt láted þer segia: og þad hvad huled var, og þú visser eigi.

7. Nú er þad skickad, enn ei þá, og eigi einum deige ádur hefir þú þar út af heyrt, uppá þad þú kunner ei ad segia: siá þú! þad vissa eg vel.

8. Þviad þú heyrder þad eigi, og visser þad einnenn ei, og þitt eyra var í þad sinn eigi upplýked. Enn eg vissa vel, ad þú munder fyrerlíta þad, og ert kalladur einn yfertroedslu madur frá módurlífe.

9. Af þvi em eg fyrer míns nafns

saker þolinnmódnr, og fyrer saker minnar hrósunar vil eg umlída þad til góda vid þig, so ad þú verder ei afmádur.

10. Siá þú! eg vil hreinsa þig, enn ei sem silfur; helldur vil eg gera þig útvaldann í ofne fátæktarennar.

11. Minna vegna, já! fyrer mínar saker mun eg gera þad, so ad eg verde eigi lastadur, þviad mína dyrd vil eg engum ødrum gefa.

12. Heyr þú mig Jacob! og þú Israel, minn hinn kalladi! eg em hann, eg em hinn fyrste, þar med og hinn sídarste.

13. Mín hønd hefir jardríked grundvallad, og mín hægre hønd hefir himenenn umspannad. Hvad eg kalla þad stendur allt þar.

14. Samannsafnid ydur aller og heyred! hver er þar á medal þessara, sem þetta kann ad kunngera? Drottinn elskar hann, þar fyrer mun hann og audsyna hens vilia vidur Babylon, og hans armlegg vidur þá Chaldeos.

15. Eg, já eg hefe sagt þad, eg hefe kallad hann, eg mun hann og einnenn koma láta, og hans vegur skal hønum vel luckast.

16. Ganged hingad til mín og heyrid þetta: eg hefe eigi í leyndum þad ádur fyrer framm talad, sídann þad var talad var eg þar. Og nú sender Drottinn Drottinn mig og sinn anda.

17. So seger Drottenn þinn lausnare, sá hinn heilage í Israel: eg em Drottinn Gud þinn, hver ed þer kenner þad, hvad nytsamlegt er, og leider þig uppá þann veigenn, sem þú gengur.

18. Eg sæe giarnann, ad þú gætter ad mínum boderdum, þá munde þinn fridur vera sem vatnsstraumur, og þitt rettlæte sem bylgiur siáfarins.

19. Og þitt sæde munde vera sem sandur, og ávøxturenn þíns kvidar so sem smásteinar sandsins, hvers nafn ad eigi mun afmád ne afskafed verda fyrer mer.

20. Ganged út af Babylon, flyed í burt frá þeim Chaldeis med gledinnar hliome: kunngered þad, og láted heyra soddann: flyted þad út, allt til veralldarennar enda. Seged: þad Drottinn hafe frelsad Jacob sinn þenara.

21. Þeir høfdu engann þorsta, þá hann leidde þá í eydemørkenne. Hann let þeim vatned úr hellusteinenum frammflióta. Hann ísundur klauf þad hellubiarged, so ad þar spratt framm vatn.

22. Enn hiner óguðlegu (seger Drottinn) hafa engann frid.

## 49. Capitule.

1. Heyred mer þer eyarnar, og þer fólked, sem í fiarska er, ad bygged ad! Drottenn hefir mig kallad frá módurlífe: hann hefir minnst míns nafns, þá ed eg var enn í módurlífe,

2. Og hann hefir minn munn gert, sem eitt hvast sverd. Med skugganum sinnar handar hefir hann huled mig. Hann hefir gert mig ad hreinne pílu, og láted mig í sitt pílna koffur.

3. Og seger til mín: þú ert minn þiónn Israel! fyrer hvern ad eg vil prísadur verda.

4. Enn eg hugsade, ad eg erfidde forgefens, og fyrer kæme mínum styrkleika fyrer eigi, og til ónytis, þó ad mitt málefne se Drottins, og mitt embætte míns Guds.

5. Og nú seger Drottinn, sá ed mig í frá módurlífe hefir tilbúed til síns þiónss: þad eg skule snúa

Jacob til hans, so þad Jsrael verde eigi í burt tekenn. Þar fyrer em eg vegsamlegur fyrer Drottne, og minn Gud er minn styrkleike. Og seger:

6. Þad er líted ad þú ert minn þiónn, til ad uppretta þær kynkvíslernar Jacobs, og þad hid bivarada af Jsrael aptur ad hafa, helldur hefe eg og so gert þig til lióssins heidingianna, so ad þú sert mitt hiálpræde allt til veralldarennar endemarka.]

7. So seger Drottenn endurlausnaren Jsraels hans heilage, til fyrerlytinna sálna, til fólksins sem menn hafa andstyggd á, til þess þiónsins sem á medal tyrannanna er. Kongarner skulu siá þad og uppstanda, og høfdingiarner skulu tilbidia vegna Drottins, sem trúlyndur er, vegna þess hins heilaga í Jsrael, sem þig hefir útvaled.

8. So seger Drottenn: á nádarennar tíma heyrda eg þig, og á þeige hiálpræedesins hiálpade eg þer, og vardveitte þig, og sette þig til sáttmála medal fólksins, so ad þú uppretter landed, og ad þer taker þá eyddu arfleifdena.

9. Til ad segia þeim herteknu: farid út hedann; og til þeirra í myrkrúnum: komid her framm, so ad þeir fáe ser fædu á veigenum, og hafe sína fædslu á øllum hædum.

10. Þá mun hverke hungra ne þyrsta: þá mun engenn hite ne sól brenna. Þviad þeirra miskunare mun þeim leid segia: og mun leida þá til vatnsbrunnanna.

11. Eg mun øll mín fiøll ad vegum gera, og míner fótstiger skulu þiódbrauter vera.

12. Siá þú! þesser munu af fiarlægd koma, og siá þu! hiner af nordrenu, og þesser frá siónum, og hiner af landenu Sinim.

13. Gefed fagnadar hlióm þer himnar! gled þig jørd, þer fiøllenn lofed med fagnadarhlióme! Þviad Drottenn hefir huggan veitt sínu fólke, og miskunad sínum fátækum.

14. Enn Zion seger: Drottenn hefir yfergefed mig, Drottenn hann hefir forgleymt mer.

15. Hvert kann móduren nockud ad forgleyma sínu barne, so ad hún siáe eigi aumur á syne síns kvidar? og þó ad hún forgleyme því sama, þá vil eg þó eigi þer forgleyma.

16. Siá þú! í høndunum hefe eg teiknad þig; þíner múrvegger eru jafnann fyrer mer.

17. Þíner uppbyggendur munu flyta ser; enn þíner niðurbriótendur og foreydslumenn munu taka sig þar í frá.

18. Upphef þú þín augu umkring, og siá þú! aller þesser kome samansafnader til þín, so sannarlega sem eg life, seger Drottenn, þá skalltu med øllum þessum, líka sem med annare pryde klædd verda, og þú munt leggia þá umkring þig, sem adra brude.

19. Þviad þitt hid foreydda, í sundur dreyfda, og þad niðurbrótna land mun þer þá ofþraungt verda, til ad byggia þar inne. Þá nær ed þíner fordiørfunar menn þeir koma langt í burt frá þer.

20. So þad børn þíns óbyriuskapar munu enn framar segia fyrer þínum eyrum: sá stadurenn er mer ofþraungur, far í burt betur, so ad eg meige hiá þer búa.

21. Enn þú munt segia í þínu hiarta: hver hefir fædt mer þessa? eg em ófriosssøm, einmana, fordiørfud og útrymd. og hver hefir

uppfædt mer þessa? siá þú! eg var látenn einsømul, hvar voru þá þesser?

22. So seger Droteenn Drottenn: siá þú! eg mun upphefia mína hønd til heidingianna, og til fólksins mínu merke útfl-ygia, þá munu þeir þína sonu á armleggium hingad hafa, og þínar dætur á herdunum hingad bera.

23. Og kongarner skulu þíner fosturfedur, og þeirra drottningar þínar fosturmædur vera. Þeir munu fyrer þer framminfalla til jardar á ásiónuna, og sleikia dupted þinna fóta: þá muntu þad reyna, ad eg em Drottinn, á hverum þad eigi til skammar verdi þeir sem uppá mig vona.

24. Hvert kunna menn herfanged ad taka af einum risa? edur kunna menn nockud þess reittferduga bandingia ad leysa.

25. Þviad so seger Drottinn: nú skulu þeir fangudu frá risanum tekner verda, og þad herfanged hins øfluga laust verda. Og eg vil þrátta vid þá sem vid þig þrátta, og þínum børnum hiálpa.

26. Og eg vil þína áþiánadar menn mata med þeirra eigenn holldi, og þeir skulu af sínu eigenn blódi, líka sem af sødru sætu víne, druckner verda. Og allt holld skal formerkia, þad eg em sá Drottinn, þinn hiálpare, og þinn lausnare, sá hinn megtuge í Jacob.

## 50. Capitule.

1. So seger Drottinn: hvar er þad skilnadar brefid ydrar módur, þar ed eg yfergaf hana med? edur hver minn ókurs madur, þeim ed eg hefe sellt ydur? siáed! þer erud fyrer ydra synda saker burtselldner, og ydar móder er fyrer ydara misgerda saker yfergefenn.

2. Hvar fyrer kom eg, og þar var engenn? eg kallade, og engenn svarade? hvert er mín hønd nú so stutt ordenn, þad hún kann eigi ad frelsa? eda hvert er þar engenn kraptur hiá mer til ad frelsa? siáed! med minne ávítan uppþurka eg siófar hafed, og gere vatnsflodenn sem adra eydemørk, so ad þeirra fiskar af þrote vatnsins uldna, og deya af þorsta.

3. Eg klæde himenenn med myrkrenu, og gere hans skyling sem annann seck.

4. Drottinn Drottinn hefir gefed mer vel lærda tungu, so þad eg vite á rettum tíma ad tala vid þá, sem mædder eru. Hann uppvekur mig alla morgna; hann vekur mitt eyra, so þad eg heyre sem annar læresveinn.

5. Drottenn Drottenn hefir opnad mitt eyra, og eg em ei óhlydugur, og geing eigi til baka aptur.

6. Eg hellt mínu bake til þeirra sem mig slóu, og mína kinnuanga ad þeim sem mig reyttu: mína ásiónu byrgda eg eigi fyrer forsmán og hrákum.

7. Þviad Drottinn Drottinn hiálpar mer, þar fyrer verd eg eigi til skammar. Af því hefe eg mína ásiónu frambóded, sem annann hardann stein, þviad eg veit, ad eg verd eigi til skammar.

8. Hann er nærre sem mig rettlátann seger. Hver vill þrátta vid mig? látum oss ganga tilsamans, hver er sá ed hefir rett til mín? sá kome her til mín.

9. Siá þú! Drottenn Drottenn hiálpar mer; hver er sá ed mig vill fordæma? siá þú! þeir munu allersaman fyrnast upp sem

annad klæde, molurenn mun uppeta þá.

10. Hver er þar á medal ydar sá ed óttest Drottenn, hann sem hlyder raustenne síns Þenara? sá í myrkrunum gengur, og lyser hónum eigi, vone sá uppá nafn Drottins, og treyste uppá sinn Gud. Sjáed! þer aller sem elldenn uppkveiked, med logandum útbuner ganged í liósenu ydars eldz, og í þeim loganum sem þer hafid uppkveikt, sooðann skedur ydur af minne hende: í harmkælum munud þer liggia.

## 51. Capitule.

1. Heyred mer þer sem stunded epter rettlætenu, þer sem leited Drottins! lyted á þad hellubiarged, sem þer erud af hoggner, og á grøfena þess brunnsins, sem þer erud út af grafner.

2. Alyted Abraham ydarn fødur, og Sara, af hverre þer erud fædder. Þviad eg kallade hann, þá ed hann var enn einn samann, og blessade hann, og jók hann.

3. Þviad Drottinn hughreyster Zion; hann hughreyster allar hennar óbyggder, og hennar óbyggder gerer hann so sem lystegarda, og hennar slettlende sem jurtagard Drottins, so ad þar inne fundenn verde glede og fognudur, þackargerd og loffsongur.

4. Hygged ad mer, mitt folk! heyred mer míner menn! Þviad út af mer mun eitt løgmál ganga, og minn rett vil eg miog snart setia lydnum til liosz.

5. Þviad mitt rettlæte er nære: mitt hiálpræde þad fer út, og míner armlegger munu fólked dæma. Eyarnar vona uppá mig, og hafa vakt á mínum armlegg.

6. Upphefed ydar augu til himens, og siáed nidur á jordena, þviad himenenn mun sem reykur forganga, og jorðenn sem annad klæde fyrnast, og þeir, sem þar á búa, munu í burt deya, so sem þad tarna. Enn mitt hiálpræde blífur eylíflega, og mitt rettlæte mun eigi audvirdast.

7. Heyred mer þer sem rettlæted þeked, þú fólked! í hverra hiørtum ad mitt løgmál er. Ottist eigi nær ed menn vanvirda ydur, og hrædist eigi, þó ad þeir gere ydur esafama.

8. Þviad molurenn mun eta þá sem nannad klæde, og madkarner munu uppeta þá sem adra ullþurku. Enn mitt rettlæte blífur eylíflega, og mitt hiálpræde um alldur og æfe.

9. Hef þig upp! hef þig upp! iklædstu styrkleikanum þú armleggur Drottins! hef þig upp! so sem fordum daga og í fyrndinne. Ert þú eigi sá sem afhiót hina drambláta, og særder þann drekann?

10. Er þú ei sá sem siáfar hafid þeirra miklu diúpu vatnanna uppþurkader? og sá sem grunned siófarins gerder ad veige, so þad hiner frelsudu geingu þar gegnum?

11. Líka so munu þeir endurleystu Drottins aptur snúa, og til Zion koma medur hrósan: og eylífur fognudur mun á þeirra høfdum vera: glede og unadsemd munu þeir hondla, enn sorg og andvarpan mun burt frá þeim flya.

12. Eg, eg em ydar hugsvalare. Hver er þú þá, ed þú hrædist fyrer mennunum, þeir ed þó deya? og fyrer mannanna børnum, sem forferast líka sem annad hey?

13. Og forgleymer Drottne þeim sem þig hefir gert, hver ed himenenn útbreider, og jordena grund-

vallar. Enn þú ert hræddur um
þig daglega allann dagenn, fyrer
grimmdar reide þess fordiørfunar
tyranna, nær ed hann ásetur ser
ad fordiarfa, hvad vard af þeirre
grimmdenne þess fordiørfunarsa=
ma tyrannans?
14. Þá ed hann þlaut ad flyta
ser, og umkring ad hlaupa, so ad
hann gæfe lausa, og ad þeir dæu
ei nidur under þeirre fordiørfun=
inne, høfdu og einnenn engann
brest á braudenu.
15. Þviad eg em Drottinn þinn
Gud, sem hrærer hafid, so ad þess
bylgiur uppþióta, hans nafn heit=
er Drottinn Zebaoth.
16. Eg legg mitt ord í þinn
munn, og skyle þer under skugga
minna handa, uppá þad eg grøð=
ursete himenenn, og grundvalle
jørdena, og sege til Zion: þú ert
mitt fólk.
17. Vakna þú! vakna þú! statt
upp Jerusalem! þú sem af hende
Drottins kaleikinn hans grimmd=
arreide hefir drucked. Dreggina
þess hrøsunar kaleikssins þá hefir
þú útdrucked, og sleikt dropana.
18. Þar var ei neinn af øllum
børnum, sem hún hafde fædt, þad
hana leidde; eigi neitt af øllum
þeim børnum sem hun hefir upp=
aled, sem tæke í hennar hønd.
19. Þetta tvennt hefir þig sked.
Hver bar harm medur þer? þar
var foreydsla, skade, hungur og
sverd, hver skyllde hugsvala þer?
20. Þín børn voru vanmegn=
ud, þau lágu á øllum strætum, lika
sem annar fiotradur skógar uxe,
full af reide frá Drottne, og út af
straffe þins Guds.
21. Þar fyrer heyr þú þetta, þú
hin fátæka, og hin fordruckna án
víns!
22. So seger þinn yfirdrottin=
are: Drottenn og þinn Gud, sem
reiner sins folks, sia þu! eg tek
þinn hrøsunar kaleik í burt af
þinne hende, ásamt med þeirre
dregginne þess kaleikssins minnar
grimmdarreide.
23. Þú skallt eigi lengur drecka
þann hinn sama, helldur mun eg
gefa hann í hønd þinna plágunar=
manna, þeir ed søgdu til þinnar
sálar: beyg þig nidur, só ad ver
kunnum ad ganga þar yfer, og
legg þinn hrigg á jørdena nidur,
og so sem eina gøtu, þad menn
hlaupe þar yfer.

## 52. Capitule.

1. Tak þig upp, tak þig upp,
Zion! íklæd þig þínum styrkleika.
Prýd þú þig vegsamlega, þú heila=
ga borg Jerusalem! Þviad þar
mun nu hedan í frá enginn óum=
skorenn edur óhreinn rikia í þer.
2. Haf þig í burt ur molldar=
duptinu: statt upp, þú hin herteknа
Jerusalem! leystu þig burt úr þin=
um halsbøndum, þú hin hertekna
dotturenn Zion!
3. Þviad só seger Drottinn:
þer erud fyrer eigi neitt í burt sellд=
er, þer skulud og einnenn án pen=
inga endurleyster verda.
4. Þviad so seger Drottenn
Drottenn; mitt fólk fór í fyrstu
ofann í Egyptaland, so ad þad
være þar einn gestur, og Assur
gerde þvi ófrike fyrer utann søk.
5. Enn hverneнn verdur mer nú
her gert? seger Drottinn. Mitt
fólk er burt fært fyrer ecke, þeir=
ra yfirdrottnarar gera eigi utan
kveinan, seger Drottinn: og mitt
nafn verdur jafnann daglega
lastad.
6. Þar fyrer skal mitt fólk
þeckia mitt nafn, á þeim sama tí=

ma, þvíad siá þú! siálfur vil eg tala.

7. Hversu elskuleger eru á fiöllunum fætur þeirra sendebódanna, sem fridenn kunngera, godt predika, hiálpræded boda, þeir sem til Zion segia: þinn Gud er kongur!

8. Þíner vøkumenn kalla hátt med sinne røddu, og glediast tilsamans, þvíad menn munu þad med augum siá, þá ed Drottinn umvender Zion.

9. Fagned og gledest aller tilsamans, þer sem erud í þeirre eydu Jerusalem. þvíad Drottenn hefir huggad sitt fólk, og endurleyst Jerusalem.

10. Drottenn hefir auglyst sinn heilagann armlegg fyrer augum allra heidingia, so þad øll endemørk veralldarennar skulu siá þad hiálpræded vors Guds.

11. Víked frá, víked frá, fared burt þadann, og áhræred eigi neitt saurugt; ganged út af henne; hreinsid ydur, þer sem bered kerenn Drottins!

12. Þvi þer skulud eigi med flyte útfara, ne med flótta ferdast, þvíad Drottenn mun ganga framme fyrer ydur, og Gud Israels mun samannsafna ydur.

## 53. Capitule.

1. Siá þú! minn þiónn mun forsiálega breyta, og hann mun uppheffast, og miøg hátt upphafenn verda.

2. So þad marger munu hneixlast á þer, af þvi, ad hans yferlitur er vidurstyggelegre helldur enn annara manna, og hans ásynd helldur enn mannanna barna.

3. Enn hann mun á þennann hátt ádreifa marga heidingia, so þad einnenn kongarner munu sínum munne samann hallda imóte hønum. Þvíad þeim sem ecke er þar af kunngert, þeir sømu munu siá þad med sagnade, og þeir sem þar hafa eigi neitt út af heyrt, þeir munu merkia þad.

4. Enn hver trúer vorre predikan? og hverum verdur armleggur Drottins opinberadur?

5. Þvíad hann sprettur upp fyrer hønum líka sem einn kvistur, og so sem ønnur rót úr þurre jørdu. Hann hefir engann yferlit ne fegurd. Ver sáum hann, enn þar var eige álit sem oss þocknadest.

6. Hann var sá hinn allra fyrerlitnaste og hinn forsmánarlegaste, fullur pínu og krankleika: so var hann forsmádur, ad menn byrgdu sína ásiónu fyrer hønum: þar fyrer øktudum ver hann einskis.

7. Sannarlega þá bar hann vort krankdæme, og vorum pínum hlód hann uppá sig. Enn ver helldum hann fyrer þann sem plágadur var, og af Gude være sleigenn og píndur.

8. Enn fyrer vorra misgerda saker er hann særdur, og fyrer vorra synda saker er hann lemstradur. Hegningenn hún liggur á hønum, uppá þad ver hefdum fridenn, og fyrer hans beniar erum ver heilbrigder vordner.

9. Ver gengum aller villt sem sauder, hverer horfdu uppá sinn veg, enn Drottenn kastade øllum vorum syndum uppá hann.

10. Þá hann var straffadur og píndur, lauk hann ei sínum munne upp, líka sem lamb þad til dráps er leidt, og so sem sá saudur, er þeiger fyrer þeim ed hann klipper, og upplykur eig sínum munne.

11. Enn frá angistenne og dómenum er hann í burtnumenn: hver vill leingd hans lífdaga út segia? Þviad hann er af lande lifande manna burtslitenn, þá ed hann fyrer misgerda saker míns fólks plágadur var.

12. Og hann er greftradur líka sem þeir ógudlegu, og dáenn eins líka og hinn ríke, þó hann hefde engum órett til gert, og þad engenn svik være í hans munne.

13. Enn Drottinn villde so kremia hann nidur med krankdæme. Þegar hann hefir nú sitt líf til synda offurs útgefed, þá mun hann sæde hafa, og alldeilige lifa. Og Drottens áform mun fyrer hans hønd frammganga.

14. Þar fyrer, ad hans sál hefir erfide drígt, mun hann sína lýsting siá, og nægd hafa. Og fyrer sína þeking, mun hann, minn þiónn, sá hinn rettláte, marga rettláta gera, þviad hann ber þeirra synder.

15. Þar fyrer vil eg hønum mikenn fiølda til bytis gefa, og hann skal fá þá øflugu til herfángs, þar fyrer, ad hann hefir sitt líf í daudann útgefed, og er líka sem spillvirke reiknadur, og hefir bored margra synder, og hefir fyrer yfertrodslu mønnunum beded.

## 54. Capitule.

1. Ver glød þú hin óbyria! sem eigi fæder: gled þig med fagnade og ver glød, þú sem eigi ert ólett. Þviad hin einsamla hefir fleyre børn, enn hún, sem mannenn hefir, seger Drottinn.

2. Vídka þú út rumed þinnar tialldbúdar, og útþen tiølldenn þíns bustadar: spara þú þau eigi: teyg þín reyp langt út, og keyr þína nagla fasta.

3. Þviad þu munt þig útbriota til hægre og vinstre handar, og þitt sæde mun erfa heidnar þióder, og í þeim foreyddum stødunum búa.

4. Ottast eigi, þviad þú skallt eigi til skammar verda: vert eigi bliug, þviad þú skallt eigi ad spotte verda; helldur þá muntu þeirre vanvirdunne þíns meydoms forgleyma, og á smánena þíns eckiudóms eigi framar mennast.

5. Þviad hann, sá ed þig hefir gert hann er þinn madur; Drottinn Zebaoth er hans heite, og þinn endurlausnare sá hinn heilage í Israel, hann sem allrar veralldarennar Gud verdur kalladur.

6. Þviad Drottenn hefir láted þig í ryktenu vera, þad þú værer sem ønnur yfergefenn, og af hiarta harmþrúngenn kvinna, og sem ønnur yngiskvinna, sú ed á burt rekenn er, seger þinn Gud.

7. Eg yfergaf þig á litlu augnabragde, enn med mikille miskunseme þá vil eg samansafna þer.

8. Eg hefe mitt andlit, á augabragde reidennar, um litla stund, hulid fyrer þer; enn med eylífre miskunseme þá mun eg þer miskunsamur vera, seger Drottinn þinn endurlausnare.

9. Þviad soddann skal mer vera, so sem vatned Noæ, þá ed eg svor, ad Noa vatn skyllde eigi meir ganga yfer jørdena. Líka so hefe eg svared: ad eg skyllde eigi reidur uppá þig vera ne þig straffa.

10. Þviad fiøllenn skulu ad sønnu víkia, og hæderner nidurfalla; enn mín miskun skal ei burt frá þer víkia, og sáttmálenn míns fridar skal eigi nidurfalla, seger Drottenn þinn miskunare.

11. Þú hin volada! yfer hvera ed øll stormvidre ganga, og þú hin huggunarlausa!

12. Siá þú! eg vil þína steina leggia sem adra fegurdar pryde, og þínn grundvøll vil eg leggia med saphiris steina, og þína glugga af crystallus gera, og þínar dyr af rubinum, og øll þín endemørk af útvøldum steinum.

13. Og øll þín børn af Drottne mentud, og mikenn frid þínum børnum.

14. Þú skallt fyrer rettlæted tilreidd verda. Þú munt fiarlæg vera ófríke og órettindum, so ad þú þarfer ei þar fyrer ad óttast, og fyrer skelfingu, þvi hún skal eigi nálægiast þig.

15. Siá þú! hver vill samansafnast á móte þer, til ad yferfalla þig, ef ad þeir samansafnast án mín?

16. Siá þú! þvi ikem eg til vegar, ad smidurenn blæs upp kolinn í elldenum, sem gere eitt verkfære þar út af, til síns verks. Þvi eg gere þad, ad sá fordiarfarenn fyrerferst.

17. Þviad allt verkfære, sem á móte þer verdur tilreidt, skal eigi luckast, og allar tungur sem setia sig á móte þer, þær skalltu í dóme fordæma, þad sama er arfleifdeun þeirra þiónanna Drottins, og þeirra rettlæte út, af mer, seger Drottinn.

## 55. Capitule.

1. Nú vel! aller þer sem þyrster erud, komed hingad til vatnsins; og þer, sem enga peninga hafed, komed hingad, kaupid og eted, komed hingad og kaupid án peninga, og fyrer eigi neitt, bæde vín og miolk!

2. Hvar fyrer teled þer peninga út, þar eigi neitt braud er, og ydar erfide, hvar þer kunned eigi sadder af ad verda? heyred mer þó, og eted þad góda, þá mun ydar sál í sælgæte feit verda.

3. Hneyged ydar eyru hingad, og komid her til mín; heyred! þá mun ydar sála lifa, þviad eg vil vid ydur eylífleganu sáttmála gera, sem er þá vissilegu nádena Davids.

4. Siá þú! eg hefe sett hann lydnum til vitnis manns, til høfdingia og yferbodara fólkenu.

5. Siá þú! þú munt hina heidnu kalla, hvera ed þú þeckter ei, og þeir hiner heidnu, sem eigi þeckia þig, munu hlaupa til þín, vegna Drottins Guds þíns, og þess hins heilaga í Israel, sem þig vegsamar.

6. Leited Drottins á medan hann má finnast. Kalled á hann á medann hann er nálægur!

7. Sá hinn ógudlege láte af sínum veige, og illvirkenn af sinne hugsan, og snúe ser til Drottins, þá mun hann miskuna hønum, og til Guds vors, þviad í hiá hønum er mikel fyrergefning.]

8. Þvi mínar þugsaner eru ei sem ydrar hugsaner, og ydrer veiger eru ei míner veiger, seger Drottinn.

9. Helldur, so miklu meir sem þad himenenn er hærre enn jørdenn, so eru einnenn míner veiger hærre enn ydrir veiger, og mínar hugsaner, enn ydrar hugsaner.

10. Þviad líka sem regned og sniórenn þad fellur af himnum ofann, og kemur ei þangad aptur, helldur vøkvar þad jørdena, og hana friófsama gerer, og gróande, so ad hún gefur sæded til ad sá, og braudeb til ad eta,

11. So skal þad orded, sem út

af mínum munne frammgengur, einnenn vera; þad skal eigi tómt aptur til mín koma, helldur gera þad hvad mer vel þocknast, og þad vel gagnast hønum til hvers eg sende þad.

12. Þviad þer skulud í gledinne útfara, og í fridnum leidder verda: fiøllenn og hálsarner skulu fyrer ydur gladvær vera, medur løfsøng, og øll tren á mørkunum med lófa klappe.

13. Grened skal vaxa í stadenn þistlanna, og myrtustren í stadenn þyrnanna. Og Drottinn skal þad eitt nafn, og eitt eylíft teikn vera, þad eigi mun afmád verda.

## 56. Capitule.

1. So seger Drottenn: hallded dómenn, og gered rettvísena, þviad mitt hiálpræde er nærre, so ad þad kome, og mitt rettlæte, so ad þad opinbert verde.

2. Sæll er sá madur sem soddann gerer, og þad manns barn sem þad fastlega helldur, þad hann hallde þvottdagenn, og saurge hann ei, og vardveite sínar hendur, þad hann gere ei neitt vondslegt.

3. Og sá hinn framande, sem hefir gefed sig til Drottins, skal ei segia. Drottinn mun skilia mig í frá sínu fólke.

4. Og sá sem gelldur er, skal ei segia: siá þú! eg em eitt þurt tre. Þviad so seger Drottenn til þeirra sem gellder eru, þeir ed hallda mína þvottdaga, og útvelia þad hvad mer þocknast, og høndla fast minn sáttmála.

5. Þeim mun eg gefa plats í mínu húse, og innann minna múr veggia, og betra nafn enn sonar og dottur. Eitt eylíft nafn vil eg gefa þeim, þad ei skal forganga.

6. Og þau annarlegu børn, sem sig hafa gefed til Drottins, so ad þau þióne hønum, og elske hans nafn, so ad þau seu hans þiónar, serhver sá sem helldur sabbathsdagenn, so hann saurge hann ei, og helldur fastlega minn sáttmála.

7. Þá somu vil eg færa til míns hins heilaga fialls, og vil gledia þá í mínu bæna húse, og þeirra fórner og brennefórnir skulu mer þacknæmar vera á mínu alltare. Þviad mitt hús kallast bænahús øllu fólke.

8. Sá Drottenn Drottenn sem hina útreknu af Israel samansafnar, hann seger: eg vil enn fleyrum safna í þeirra hóp, sem samansafnader eru.

9. Øll dyrenn á mørkenne! komed og eted. Já! øll dyrenn í skogenum!

10. Aller þeirra vardmenn eru blinder, þeir vita aller ecke: hlióðlauser hundar eru þeir, sem eigi kunna um ad vanda, eru later, liggia og sofa giarnann.

11. Enn þad eru þó hrauster hundar af gyrugleika, sem alldrei kunna sadder ad verda. Siá! hyrdararner hafa enga skinsemd; hver einn horfer á sinn veg; hver einn þeirra er ágiarn fyrer sig í sinne stett.

12. Komed hingad! látum oss vínid sækia, og drecka oss druckna, og á morgun skal þad vera so sem í dag, og enn miklu framar.

13. Enn sá hinn rettferduge hann tortínest, og þar er engenn sem þad legge uppá hiartad, og heilager menn verda í burt safnader, og engenn hyggur ad því. Þviad hiner rettferdugu verda burttekner frá ógæfunne, og þeir sem rettferduglega hafa geingid

koma til fridar, og hvílast í sínum svefnhúsum.

## 57. Capitule.

1. Og þer komid hingad, þer børn hennar, sem dagana útvelur, þer sæded hórkonunnar, og skækunnar!

2. A hverum viled þer nú ydra lyfsting hafa? yfer hverum viled þer nú uppsperra munnenn? og túnguna útrétta? hvert érud þer eigi þeir svnerner yfertródslunnar, og eitt falskt sæde.

3. Þer sem í brunanum hlaupid til afgudanna, under øll grænkud tre, og slátrid børnunum hiá lækunum, under steinklettunum.

4. Þín umsíslan er vid þá slettu lækarsteinana; þeir hiner sømu eru þín hlutdeilld; á þá sømu útheller þú þínu dryckiaroffre, þar ed þú fornar mataroffur. Skyllde eg hugga mig þar vid?

5. Þú gerer þitt legurúm uppá einu miøg háu fialle, og þú gengur og so upp þangad ad offra.

6. Og á bak vid dyrnar og dyrastafena setur þú þína minning, þviad þú vellter þer frá mer, og gengur upp þangad og gerer þitt legurúm vídt, og sambindur þad vidur þá; þú elskar þeirra legurúm hvar sem þú ser þá.

7. Þú reiser med vidsmiøre til kongsins, og hefir marghátttud smyrsl, og sender þína sendebóda langt í burt, og ert nidurlægd allt til helvítis.

8. Þú ómakar þig í fiøldanum þíns vegar, og seger eigi: eg læt þar af: helldur á medann þú finnur lif í þinne hende, þá mædest þú eigi.

9. Fyrer hverum fyrger þú, og ótlast so? fyrst ad þú fer þó med lyggar, og hugsar eigi til mín, og tekur þer þad eigi til hiarta. Þeinker þú! ad eg mune alltjafnt þeigia, þad þú so gervallega óttast mig elgi?

10. Enn eg vil þitt rettlæte kunnigt gera, og þín verk, ad þau skulu þer engenn nytseme vera.

11. Nær ed þú kallar, þá lát þú þinn flock hiálpa þer, enn vindurenn mun þeim øllum í burt svipta, og hegomenn mun í burttaka þá. Enn hver, hana vonar á mig, sá mun landed erfa, og eignast mitt hid heilaga fiall.

12. Og mun segia: gered veguna, gered veguna, rymid út vegenn: taked burt þær ásteytingar af vegenum míns fóiks!

13. Þviad so seger sá hinn háse, og hann upphafenn er, sá ed eylíflega byr, hvers nafn ad heilagt er. Eg sá sem í hædunum og í helgedomenum bygger, og í hiá þeim sem hafa sundurknosadann og lítellátann anda, so ad eg lífge andann hinna lítellátu, og hiörtun þeirra ísundurmørdu.

14. Eg vil ei þrátta med jafnade, og eigi reidast æfinlega. Helldur skal einn ande af minu auglite sveima, og eg vil andarbrættena gera.

15. Eg var reidur uppá ódygd þeirra ágyrndar, og sló þá, geymda mig, og vard reidur. Þá ráfudu þeir hingad og þangad á vegenum síns hiarta.

16. Enn þá ed eg áleit þeirra vegu, grædde eg þá, og leidde þá, og huggade þá aptur, og þá sem gretu yfer þeim.

17. Eg mun tilreida ávøxtenn þeirra vara, ad þeir predike frid, frid, bæde þeim sem eru fiarlæger, og þeim sem nálæger eru, seger Drottinn, eg vil lækna þá.

18. Enn hiner ógudlegu eru sem uppþiſt nde ſiór, ſá ed ei kann kyrr ad vera, og hans bylgi ur útkáſta ſaur og óhreinendum.

19. Hiner ógudlegu hafa eng ann frid, ſeger minn Gud.

## 58. Capitule.

1. Kalla þú í ákefd, væg eigi, upphef þína rauſt ſem eina baſunu, og kunnger mínu fólke þeirra yfertródſlur, og þvi húſenu Jacobs ſínar ſynder.

2. Þeir leita mín daglega, og vilia vita mína vegu, ſo ſem þad fólk, ed allareidu rettvíſena gert hefde, og dómenn ſíns Guds hefde eigi yfergefed. Þeir kreſia mig til dóms, og vilia þreyta løg vid þeirra Gud.

3. Hvar fyrer þá føſtum ver, og þú álytur þad eigi: hvar fyrer þiáum ver vorar ſáler, og þú villt eigi vita þad? ſiáed! nær þer faſted, þá gered þer ydarn vilia, og þvinged alla ydra ſkullda menn.

4. Siáed! þer faſted, ad þer deiled og þræted, og ſláed med knefunum ógudlega. Faſted ei ſo ſem nú gerdud þer, ſo ad af ydur heyrt verde eitt kall í hæderner.

5. Skyllde þad vera ſú faſta, hvera eg ſkyllde utvelia, þad madurenn þvingade ſinn líkama á deigenum? edur heinge nidur høfuded ſem ſef? edur ſklæbeſt ſeck, og ligge í øſku? viled þer kalla þetta føſtu, og einn þacknæmelegann dag Drottni?

6. Enn þad er ſú faſta ſem eg útvel. Lát þú þá lauſa ſem þú hefir med ranglindum í bønd ſett: lát lauſa þá, ſem þú ofþynger: gef þá friálſa ſem þú þreynger; ſlít í burt allann þúnga.

7. Briót þú hungrudum þitt braud, og innleid þá ſem volader eru í þitt hús. Ser þú nockurn nakenn, þá klæd þú hann, og drag þig eigi frá þínu hollde.

8. Þá mun þitt liós þer frammbrióta ſt ſem morgunrode, og þín forbetran mun ſarlega aukaſt, og þitt rettlæte mun ganga framme fyrer þer, og dyrdenn Drottins mun taka þig til ſín.

9. Þá mun þú kalla, ſo mun Drottenn þer andſvar gefa. Þá ed þú kallar, þá mun hann ſegia: ſiá þú! her em eg. Ef ad þú þyngirer engum hiá þer, og víſar eigi med fingrenum, og talar eigi neitt vondslegt.

10. Og lætur hinn hungrada finna þitt hiarta, og mettar ſvo þá hina fátæku ſál, þá mun þitt liós í myrkrunum upprenna, og þín myrkur munu vera ſem middege.

11. Og Drottenn mun þig æ tíd leida, og þína ſál ſedia í þurkenum, og þín bein ſtirkia. Og þú munt vera ſem annar vøknadur jurtra gardur, og ſem annar uppſprettu brunnur þann alldrei þrytur vatn.

12. Og fyrer þig ſkal uppbyggt verda hvad lenge hefir í eyde leiged, og þú munt þann grundvøll leggia, ſem ſtanda mun um alldur og æfe, og þú ſkallt kallaſt uppbyggiare broſtinna gyrdinga, og ſá ed veigena forbetrar, ſo ad þar meige búa.

13. Ef ad þú burt ſnyr þínum fæte frá ſabbaths deigenum, ſo ad þú gerer eigi hvad þu villt, á mínum heiløgum deige, þá mun þad lyſtelegur ſabbaths dagur kallaſt, Drottne til helgunar, og til lofs. Þviad ſo mun þú príſa hann, nær ed þú gerer eigi þína vegu, og ad þad verde eigi þar inne funded

hvad þer siálfum vel líkar, eda þad hvad þú talar.

14. Þá mun þú lyfting hafa til Drottins, og eg vil láta þig sveima upp yfer þeim háu á jørdunne, og mun fæda þig medur arfleifd þíns fødurs Jacobs. Þviad munnur Drottins seger þad.

## 59. Capitule.

1. Siá þú! hønd Drottins er ei offstutt, þad hún kunne ei ad hiálpa, og hans eyru eru ei þick vordenn, ad hann heyre ei.

2. Helldur ydrar óbygder adskilia ydur og ydarn Gud, hvera frá ødrum, og ydrar synder byrgia andlited frá ydur, so ad þer verded ei heyrder.

3. Þviad ydrar hendur eru med blóde saurgadar, og ydrer fingur med illgerdum: ydrar varer þær tala lygar; ydar tunga dicktar þad upp, hvad órett er.

4. Þar er sá engenn, sem af rettlætenu predike ne trulega dæme. Þeir treysta uppá hegómann, og tala þad, hvad ei duger. Med ógæfunne eru þeir þungader, og fæda mæduna.

5. Þeir útklekia Basiliskus égg, og vefa kongulóar vefu. Ete madur af þeirra eggum, sá hlytur ad deya; enn verde þau ísundur trodenn, þá skrídur þar einn eytur ormur út.

6. Þeirra kongulóar vefur duger ei til klæda, og þad sem þeir hafa ofid, duger ei til skióls, þviad þeirra verk eru erfidismuner, og í þeirra hondum eru ranginde.

7. Þeirra fætur skunda til hins vonda, og eru flioter til ad úthella saklausu blóde: þeirra hugsaner eru erfidismuner; þeirra vegur eigi utann fordiørfun og skade.

8. Þeir þeckia ei veigenn fridarins, og þar eru eigi rettinde í þeirra gongu. Þeir eru rangsnúner á sínum vegum. Hver ed þar uppá gengur, sá hefir alldrei frid.

9. Þar fyrer er sá retturenn langt frá oss, og rettlæted þad ødlunst ver eigi. Ver væntum epter liósenu. Siá þú! þá verdur myrkur, epter byrtunnne. Siá þú! þá gøngum ver í myrkrenu.

10. Ver fálmum epter veggum, sem hiner sjónlausu, og þreyfum, so sem þeir ed engenn augu hafa. Ver steytum oss á um middeiged, so sem í rækrinu Ver erum í myrkrinu, so sem hiner daudu.

11. Ver rymium aller sem biarndyr, og krytum sem dufur, þviad ver væntum epter rettenum, þá er hann þar eigi, epter hiálpædenu, þá er þad langt í burt frá oss.

12. Þviad vorar yfertródslur eru helldst til miklar fyrer þer, og vorar synder, þær andsvara imóte oss. Þviad vorar yfertródslur eru hiá oss, og ver finnum til vorra synda.

13. Med yfertródslum, og lygum á móte Drottne, og med burtsnuninge í frá vorum Gude, og med ofstækis ordum og óhlydne, ástundum og uppkveikum ver lygeleg ord úr hiartanu.

14 Þar fyrer er einnenn sá rettlætenn tilbaka gengenn, og rettlæted langt í burtu fared, þvi sannleikurenn fellur nidur á strætunum, og retturinn kann eigi her inn ad ganga.

15. Og sannleikurenn er í burt, og hann, hver ed snyst frá illu, sá hlytur ad vera hvers manns herfang. Þad sama ser Drottinn, og þad líkar honum illa, ad þar er eigi neinn rettur.

16. Og hann sér, ad þar er engenn, og hann furdar það, ad engenn gengur framm fyrer þá. Þar fyrer hiálpar hann þönum siálfur med sínum armlegg, og vid magt helldur þönum med sinu rettlæte.

17. Þviad hann íklædest rettlætenu sem bringabryniu, og setur hiálpræðis hiálminn á sitt höfud, og býr sig út til hefndar, og klæder sig med vandlætenu, sem med yfrum kyrtle.

18. So sem sá ed vill endurgiallda sínum mótstødu mønnum, og ad bitala sínum óvinum medur grimmd, já! þeim eyunum vill hann bitala.

19. So ad þeir óttist nafned Drottins í frá nidurgøngu sólarennar, nær ed hann mun koma so sem einn stríddur straumur, þann sem vindur Drottins frammdrífur.

20. Þviad þeim til Zion mun endurlausnarinn koma, og þeim sem sér í burt snúa frá syndunum í Jacob, seger Drottinn.

21. Og eg gere soddann sáttmála vidur þá, seger Drottinn. Minn ande sem hiá þer er, og mín ord sem eg hefe lagt í þinn munn, skulu eigi í burt víkia af þínum munne, ne af munne þíns sæðis, og barnabarna (seger Drottenn) hedann í frá og ad eylífu.

## 60. Capitule.

1. Ger þig reidubúna: ver þú biørt, þviad þitt liós kemur, og dýrd Drottins upprennur yfer þer!

2. Þvi siá þú! myrkrenn hylia jørdena, og þokann fólked. Enn yfer þer upprennur Drottinn, og hans dýrd skín yfer þer.

3. Og heidingiarner munu ganga í þínu lióse, og kongarner í þvi skíne sem yfer þer upprennur.

4. Lypt upp þínum augum, og siá umhverfis: þesser aller samansafnader koma til þín. Syner þíner munu koma úr fiarlægd, og dætur þínar munu hiá hlidenne uppfostrast.

5. Þá mun þú siá þína lysting, og útbriótast, og þitt hiarta mun undrast og útbreida sig, nær ed sá múgafiøldenn vid sióenn snyst til þín, og þá ed sú magtenn heidingianna kemur til þín.

6. Þviad sá fiøldenn ulfalldanna mun hylia þig, þeir hlauparar úr Madian og Epha: aller af Saba munu koma, færande gull og reykelse, og kunngerande lof Drottins ]

7. Allar hiarder í Kedar skulu til þín safnadar verda, og hrutarner Nebaioth skulu þer þióna. Þeir skulu uppá mínu þægelegu alltare offrader verda, þviad eg mun pryda húsed minnar vegsemdar.

8. Hverer eru þeir ed fliúga sem skyenn, og so sem dufurnar til sinna vindglugga?

9. Þær eyarnar vænta mín, og skipenn hiá siónum fyrer løngu, so ad þeir fære hingad þín børn úr fiarlægd, medur þeirra silfre og gulle, nafnenu Drottins Guds og þíns, og þeim hialaga í Israel, sem þig hefir vegsamlega gert.

10. Framande munu uppbyggia þína múrvegge, og þeirra kongar munu þer þióna. Þviad í minne reide hefe eg slegeð þig, og í minne líknseme em eg þer misksamur.

11. Og þínar dyr skulu med jafnade standa, og hverke um dag ne nætur aptur látnar verda, so þad magtenn heidingianna se til

þín hørd, og þad þeirra kongar verde hingad leidder.

12. Þviad hverer þeir heidingar, edur þau kongaríke, sem eigi vilia þer þióna, þá skulu fyrer farast, og heidingiarner foreydder verda.

13. Vegsemdenn Líbani skal til þín koma; grenid, beiked, og busbomid, hvert med ødru, til ad pryda þann stadinn míns helgedóms. Þviad eg mun þann stadenn min na fóta vegsamlegann gera.

14. So líka einnenn skulu þeir búger til þín koma, sem þig hafa underþrickt, og þeir aller sem þig hafa lastad, munu nidurfalla til þinna fóta, og munu kalla þig borg Drottins, þá Zion hins heilaga í Israel.

15. Þvi þar fyrer, ad þú varst sú yfergefna og hatada, tid hverrar engenn gieck, þá vil eg þig ad straute gera eylíflega og til fagnadar glede um alldur og æfe.

16. So ad þú skallt miolkena útsiúga af heidingiunum, og kongsanna brióst skulu gefa þer ad siúga. So ad þú reyner, þad eg em Drottinn, þinn frelsare, og eg sá hinn volldugе í Jacob, er þinn endurlausnare.

17. Eg vil færa gull í stadinn kopars, og silfur í stadenn járnsins, og kopar í stadenn tresins, og járn í stadinn griotsins. Og eg vil gera þad, ad þíner forstiorar skulu fridenn kenna, og þíner fyrerstiónar menn rettlæted predika.

18. Þar skulu engenn ránginde lengur heyrast í þínu lande, og engenn skadsemd ne fordiorfun í þínum takmørkum, helldur skulu þíner múrvegger hiálpræded, og þínar dyr forprís kallast.

19. Solenn skal eigi skína þer á dagenn lengur, og byrtann tunglsins skal eigi lysa þer. Helldur mun Drottinn vera þitt eylíft liós, og þinn prís.

20. Þín sól mun eigi meir undergánga, ne þitt tungl byrtuna missa, þviad Drottenn mun vera þitt eylíflegt liós, og dagarner þinnar hørmungar skulu einn enda hafa.

21. Og þitt fólk skall allt vera rettferdugt, og mun jardríked eignast eylíflega, so sem þeir ed eru kvister minnar plantanar, og verk minna handa til hrósunar.

22. Ut af þeim minnsta skulu þusund verda, og út af þeim smærstu eitt megtugt fólk. Eg Drottenn vil slíkt á sínum tíma snarlega til vegar koma.

## 61. Capitule.

1. Ande Drottins, Drottins er yfer mer, þar fyrer hefir Drottinn smurt mig; hann hefir sendt mig til ad predika volududm, ad leggia vid þau sundurknosudu hiørtu, til ad predia þeim herteknu frelsed, þeim hinum bundnu ad upp se lokid.

2. Til ad predika nádarsamlegt ár Drottins, og einn hefndardag vors Guds, til huggunar øllum harmþrungnum.

3. Til ad afreka þeim sorgbitnu í Zion, ad þeim gefest fegurdarprydenn fyrer øskuna, og fagnadar vidsmiør fyrer briggdena, og kostuleg klæde fyrer sorgar anda. So ad þeir kallader verde tre rettlætesins, rótsetning Drottins, til loss.

4. Þeir munu þá gømlu endestadena byggia, og vidretta þad aptur hvad fyrr meir var niddurbroted. Þeir munu uppnya aptur þær foreyddu borgernar, sem

um alldur og æfe hafa í eyde leiged.

5. Framande munu standa, og ydra hiørd fæda, og hiner útlendsku munu ydrir akurmenn og víngardsmenn vera.

6. Enn þer skulud Drottens kennemenn heita, og menn munu kalla ydur þióna Guds vors. Og þer munud eta audæfenn heidinganna, og hrósa ydur yfer þeirra vegdsemd.

7. Fyrer ydra forsmán skal tvefallt koma, og fyrer ydra vanvirdu skulu þeir gladværer vera á þeirra akurløndum. Þviad þeir skulu tvísvarsinnum eignast so miked í þeirra lande, þeir skulu eylífleg-ann føgnud hafa.

8. Þviad eg em Drottenn, sá ed rettenn elskar, og ad hatre hefir reyfaranna brenneoffur. Og eg mun þad gera, ad þeirra erfide skal vissulegt vera, og einn eylífann sáttmála vil eg gera vidur þá.

9. Og þeirra sæde skal audþkennt medal heidingianna, og þeirra epterkomendur medal fólksins, so ad aller þeir sem þá munu siá, munu þeckia þá, ad þeir seu þad sæded sem blessad er af Drottne.

10. Eg gled mig í Drottne, og mín sál er gladvær í Gude mínum. Þviad hann hefir íklædt mig klædum hiálprædesins, og medur møttlinum rettlætesins klædde hann mig, líka sem brúdguma pryddann kennemannlegum skrúda, og so sem adra brúde prydda med sínu skarte.

11. Þviad líka sem ávøxturenn ver úr jørdunne, og sæded uppvennur í grasgardenum, líka so mun rettlæted og lofed uppganga fyrer øllum heidingum, út af Drottne, Drottne.

## 62. Capitule.

1. Vegna Zion mun eg eigi þeigia, og vegna Jerúsalem mun eg eigi kyrru halda, þangad til ad hennar rettlæte uppgengur sem annar geisle, og hennar hiálpræde brennur, sem annad liós.

2. So ad hiner heidnu siáe þitt rettlæte, og aller kongarner þína dyrd. Og þú skallt med nyu nafne nefnd verda, hvert ed munnur Drottens mun nefna.

3. Og þú munt vera eitt fagurt díásn í hende Drottins, og einn kønunglegur hattur í hende Guds þíns.

4. Þú skallt eigi lengur kallast hin yfergefna, ne þitt land foreydsla kallast. Helldur skallt þú kallast (mín lysting á henne og þitt land, kæra brúd) þviad Drottinn hefir lyst til þín, og þitt land hefir eina kæra brúd.

5. Þviad líka sem ungur madur hefir sína unnustu kæra, so munu þín børn þig kæra hafa. Og so sem þad brudgumenn gledur sig yfer brúdenne, so mun þinn Gud gledia sig yfer þer.

6. O Jerúsalem! eg mun vardmenn tilskipa uppá þína múrvegge, þeir ed alla daga og allar nætur skulu alldreige hlióder vera, og þeir ed skulu minnast Drottens.

7. So þad í hiá ydur se engenn þøgn, og þer þeiged eigi um hann, þangad til ad Jerúsalem verdur búenn, og verde sett til lofs á jørdu.

8. Drottinn hann hefir svared vid sína hægre hønd, og vid armlegginn síns magtarvelldis: eg vil ei lengur gefa þitt korn þínum óvinum ad eta, ne láta framande menn drecka þitt þad sæta

víned, sem þú hefir erfide fyrer haft.

9. Helldur þeir sem þvi safna skulu einnenn þess neyta, og lofa Drottenn, og þeir ed þad innbera skulu drecka þad í forgarþe míns helgedóms.

10. Ganged burt, ganged burt, ígegnum portinn, tilreided fólkenu veigenn, gered brautena, gered brautena, róted í burt steinunum, seted upp merked fyrer fólkenu.

11. Siáed! Drottinn lætur heyra sig allt til enda veralldarennar. Seged dotturinne Zion: siá þú! þitt hiálpræde kemur; siá þú! hans laun eru hiá honum, og hans endurgiallð er fyrer honum.

12. Menn munu kalla þá þad heilaga fólk, þá endurleystu Drottens, og þú munt kallast hin heimsókta borg, og eigi hin yfergefna.

## 63. Capitule.

1. Hver er sá sem kemur af Edom, med raudlitudum klædum af Bazara, sem so pryddur er í sínum klædnade, og her frammbrunar í sínum mikla krapte? eg em hann sá sem rettlæted kenner, og einn meistare er til ad hiálpa.

2. Hvar fyrer er þá þinn klædnadur so raudur ad lit, og þitt klæde so sem þess ed vínpressuna tredur?

3. Eg fottred vínpressuna einn samann, og þar er engenn af fólkenu medur mer. Eg hefe pressad þá í reide minne, og nidurtróded í minne heipt Þar fyrer hefir þeirra megn dreift á mín klæde, og eg hefe vaskt allann minn klædnad.

4. Þviad eg hefe ásett mer hefndardag, þad áred, til ad endurleysa mina, er komed.

5. Þviad eg skygndunst skringum mig, og þar var engenn hiálpare, og eg var í skelfingu, og engenn studde mig. Helldur vard minn armleggur ad hiálpa mer, og mín reide studde mig.

6. Þar fyrer hefe eg fólked nidurtróded í minne reide, og hefe þá druckna gert í minne bræde, og þeirra megne til jardar hrunded.

## 64. Capitule.

1. Eg vil minnast miskunsemdar Drottens, og þess lofstyrs Drottins, í ollu þvi ed Drottenn hefir gert vid oss, og þess hins mikla goda vid þad húsed Israels, sem hann hefir þeim gert, fyrer sína miskunsemi og mikla gódgyrne.

2. Þviad hann sagde: þeir eru ad sonnu mitt fólk, þau born sem eigi eru folsk, þar fyrer var hann þeirra frelsare.

3. Hver hann angrade þá, sá angrade hann einnenn, og sá engellenn sem fyrer hans augsyn er, hiálpade þeim. Hann frelsade þá, þar fyrer, ad hann elskade þá, og vægde þeim. Hann tók þá upp, og bar þá alla tíma, frá gamallre tíd.

4. Enn þeir voru genstríduger og hrelldu hans heilaga anda, þar fyrer vard hann þeirra óvinur, og strídde á móte þeim.

5. Og hann minntest aptur ó þá umlidnu tídena, á Moysen, sem var á medal hans lyds. Hvar er þá nú hann, sem í burtleidde þá úr sjónum, medur hyrdernum sinnar hiardar? hvar er hann sem gaf sinn heilaga anda medal þeirra?

6. Hver ed Moysen vidur hægre hond leidde, fyrer sinn dyrdarsamlegann armlegg. Hver ed ísundur skilde votnenn framme fyrer þeim, uppá þad ad hann gerde ser eitt eylíft nafn.

7. Hann ed þá leidde igegnum diúpenn, líka sem hesta í eydemørkena þá ed eigi hnióta.

8. So sem þann fenad ed ofann geingur á slettlendid, hvern ed ande Drottins frammdrífur. Líka so hefir þú þitt folk einnenn leidt, uppá þad, ad þú gerder þer eitt dyrdarsomlegt nafn.

9. So siá þá nú þvi af himne ofann, og líttu nidur af þínu heilegu dyrdarsamlegu heimile! hvar er nú þín vandlæting, þín magt? þín mikla hiartgróenn miskunseme inne helldur ser fast vid mig.

10. Þú ert þó vor fader, þvi Abraham hann veit ei af oss, og Israel hann þeker oss ei. Enn þú Drottenn er vor fader, og vor frelsare, þegar fyrer langre æfe er þad þitt nafn.

11. Hvar fyrer lætur þú oss Drottenn villt fara af þínum vegum, og forhardna vort hiarta, so ad ver óttunst þig eigi? snú þú aptur, vegna þinna þiónustumanna, fyrer saker ættkvíslanna þinnar arfleifdar.

12. Þeir eignast þitt heilaga fólk nærsta med øllu: þíner mótstødumenn nidurtroda þinn helgedóm.

13. Ver erum líka so sem ádur til forna, þá ed þú drottnader eigi yfer oss, og ver vorum eigi nefnder epter þínu nafne.

14. Ak eg villde, ad þú ísundur sliter himnana, og færer hingad ofann, so þad fiøllenn utrynne fyrer þer!

15. Líka sem annad heitt vatn uppsodid af megnum ellde. So ad þitt nafn kunnugt verde medal þinna óvina, og þad hiner heidnu hlióte fyrer þer ad skelfast.

16. Fyrer þau dádsemdar verkenn sem þú gerer, hverra ei var vænt, þá ed þú fórst ofann, og fiøllenn ísundur runnu fyrer þer.

17. So sem í frá verølldarennar upphafe hafde ei heyrst, ne med eyrum heyrst, og enge augu hafa sed, án þín Gud! hvad þá sker sem uppá hann vona.

18. Þú mætter þeim gladværu, og þeim sem rettlæted ídkudu, og á þínum vegum minntust þín. Siá! þú reiddest ad sønnu þá ver syndgudunst, og blifum þar leinge inne. Enn oss vard þó hiálpad.

19. Enn nú erum ver aller tilsamans so sem hiner óhreinu, og allt vort rettlæte er sem annar óþecktar leppur. Ver erum aller uppvisnader sem laufblød, og vorar synder feykia oss í burt, sem annar vindur.

20. Engenn ákallar þitt nafn, edur tekur sig upp, þad hann hallde þer. Þviad þú hylur þitt andlit fyrer oss, og lætur oss í vorum syndum vanmegnast.

21. Enn nú Drottinn! þú ert vor fader. Ver erum leyrenn, þú ert vor leyrpottasmidur, og ver aller erum verked þinna handa!

22. Drottenn! reidstu eigi ofsøg, og minnstu eigi eylíflegana á syndernar, álíttu þad þó, ad ver allersamann erum þitt folk.

23. Staderner þíns helgedóms eru ad ørbyle vordner: Zion er ad óbyggd vordenn: Jerusalem liggur eydeløgd.

24. Þad húsed vors heilagleiks og vegsemdar, þar inne ed fedur vorer losudu þig, er med ellde uppbrendt, og allt hvad ver høfdum lystelegt, þad er til skammar gert.

25. Drottinn! villtu so hardrádur vera í slíku, og þeigia um þetta, og nidurslá oss so møg?

## 65. Capitule.

1. Mín verdur leitad af þeim sem eigi spurdu epter mer. Eg verd fundenn af þeim, sem eigi leitudu ad mer. Og til þeirra heidingia sem eigi ákølludu mitt nafn, sege eg: her em eg! her em eg!

2. Þviad eg útretie mínar hendur allann dageun, til eins óhlydugs fólks, hvert ed gengur epter sínum hugrenningum, á einum veige sem eigi er gódur.

3. Pad fólk, sem mig til reide reyter er jafnann fyrer minne augsyn: þeir offra í grasgørdum, og veyfa reykelsenu yfer tigulsteinum.

4. Þeir búa á medal grafanna, og halda sig í holunum, eta svínakiøt, og hafa herfeligt juck í sínum elldsgøgnum.

5. Og segia: ver þú heima, og áhrær mig eigi, þviad eg skal helga þig. Slíker skulu verda reykur í minne reide, sá elldur sem allann dag brennur.

6. Siá þú! þad stendur skrifad fyrer mer: eg vil ei þegia, helldur endurgiallda, já! eg vil giallda þeim þad aptur í þeirra barm.

7. Bæde þeirra misgerder, og misgerdernar fedra þeirra tilsamans, seger Drottinn, þeirra sem uppá fiøllunum hafa reykiad, og mig hafa vanvirt t uppá hædunum, eg mun mæla þeim aptur þad fyrra athæfed í þeirra barm.

8. So seger Drottinn: líka so sem þá, nær ed løgurenn finnst í vínberenu, og sagt verdur: fordiarfa þad eigi, þviad þar er blessan inne. So vil eg og líka einnen gera vegna minna þiónustuman na, ad eg fordiarfe þad eigi alltsamann.

9. Helldur vil eg út af Jacob láta sæde uppvaxa, og út af Juda þad sem eignast mun mitt fiall. Þviad míner hiner útvølldu skulu þad erfa, og míner þiónustumenn skulu þar byggia.

10. Og Saron skal verda eitt hús handa hiørdenne, og sá dalurenn Achor ad fiárlegrum mínu fólke, þvi sem mín leitar.

11. Enn þer, hverer ed yfergefed Drottinn, og forgleymed mínu heiløgu fialle, og tilreided þeim Gad eitt matbord, og skeinked fullt á þeim meni af dryckiaroffrenu.

12. Nú vel! eg vil telia ydur til sverdsins, so ad þer hlióted aller ad beygia ydur til slátrunar. Af þvi ad ed kallade, og þer gáfud ei svar, ad eg talade, og þer heyrdud eigi. Helldur gerdud þad, hvad mer líkade illa, og útvøldud þad, hvad mer eigi þocknadest.

13. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: siá þú! míner þiónar skulu eta, enn þer skulud hungra. Siá þú! míner þiónar skulu drecka, enn þer skulud þyrster vera. Siá þú! míner þiónar skulu gladder vera, enn þer skulud til skammar verda.

14. Siá þú! míner þiónar skulu af gódu gede kætast, enn þer skulud af hiartans angre hrópa, og af vesalldar eymd æpa.

15. Og þer skulud láta ydart nafn mínum útvøldum epter til eins eids, og Drottinn, Drottinn mun svipta þig lífenu, og nefna sína þióna med ødru nafne.

16. So þad, hver ed sig mun blessa á jørdu, sá mun blessa sig í þeim sanna Gude. Og hann, hver ed svera mun á jørdu, sá mun svera vidur þann sanna Gud. Þviad þær hinar fyrre ánaudernar eru

forgleymdar, og eru byrgdar fyrer minum augum.

17. Hviad, siá þú! eg vil skapa nyann himin og nya jørd, so ad menn munu ei lengur minnast á þad fyrra, ne þad uppá hiartad leggia.

18. Helldur munu þeir gledia sig eylífflega, og glader vera yfer þvi sem eg skapa. Hviad, siá þú! eg vil gera Jerusalem til unadsemdar, og hennar folk til fagnadar.

19. Og eg vil gladur vera yfer Jerusalem, og gledia mig yfer minu fólke, og þar skal eigi lengur inne heyrd vera raust grátsins, ne raust kveinunarinnar.

20. Þar skulu eigi meir þau børn vera, sem eigi nae sínum døgum, edur þeir gamler menn sem eigi fullkomne sín ár. Helldur unglingarner hundrad ára gamler skulu deya, og þeir synduger sem eru hundrad ára skulu bølvader vera.

21. Þeir munu húsinn uppbyggia og í þeim búa; þeir munu planta víngarda og eta þeirra ávøxtu.

22. Þeir skalu þad eigi uppbyggia, ad einn annar búe þar í. Og eigi rótsetia, þad einn annar upp ete. Hviad dagar míns folks skulu vera so sem dagarner einn rar eykar. Og verked þeirra handa mun gamallt verda, hiá mínum útvøldum.

23. Þeir skulu eigi erfida forgefens, ne ótímabæra burde fæda. Hviad þeir eru sædid hinna blessudu Drottins, og þeirra epterkomendur medur þeim.

24. Og þad skal ske, ad fyrr enn þeir kalle, þá vil eg svara: á medan þeir eru enn nu ad tala, vil eg heyra. Ulfurenn og lambid skulu tilsamans ser fædslu leita: Leoned mun gras bíta sem naut, og høggormurinn skal jørdena eta: þeir munu eigi neitt skada ne fordiarfa, uppá øllu mínu heiløgu fialle, seger Drottinn.

## 66. Capitule.

1. Svo seger Drottinn: himeninn er minn stóll, og jørdenn er mín fótskør. Hvada húsi er þad þá, ed þer viled mer uppbyggia? eda hver er sá stadur, þar eg skule hvílast?

2. Min hønd hefir gert allt þad, hvad þar er, seger Drottenn. Enn eg álýt þann hinn fátæka, og þann sem hefir sundurknosadann anda, og þann ed hrædest mín ord.

3. Hviad, hver hann slátrar naute, þad er jafnt sem hann slæe mann íhel: hver hann offrar einum saud, þad er sem hann hálsbryte hund; hver færer mataroffur, þad er sem offrade hann svína blóde. Hver ed minnest þess reykelsis, þá er sem lofe hann óréttindenn. Soddann útvela þeir í sínum vegum, og þeirra sál hefir gedþeckne á þeirra svívirdingum.

4. Þar fyrer vil eg einnenn útvelia þad sem þeir spotta, og þad hvad þeir hrædast, vil eg láta yfer þá koma. Af því, ad eg kallade, og engenn svarade: ad eg talade, og þeir hlyddu þvi eigi, og gerdu hvad mer illa líkade, og útvøldu þad, hvad mer þocknadest ei.

5. Heyred ord Drottins, þer sem hrædist hans ord! ydrer brædur sem ydur hata, og þeir ed í burt skilia ydur frá ser, fyrer míns nafns saker, og segia: láttu siá, hversu dyrdarsamlegur Drottenn er! lát hann opinberast til ydarar glede!) þeir hiner sømu skulu til skammar verda.

6. Þviad þar mun heyrast raust eins gnys í borgenne, ein raust af musterinu, ein raust Drottins, sem endurgelldur sínum óvinum.

7. Hún verdur lettare, ódur enn hún tekur sótt-na. Hún er hraust ordenn epter sveinbarn, ádur enn hennar jódsótt kemur.

8. Hver hefir nockurn tíma heyrt sodvan? hver hefir nockurn tíma sed slíkt? hvert kann nockud fólked under eins fædt ad verda ádur enn landed tekur sóttena? nú hefir þó Zion fædt sín børn fyrer utann siukdom.

9. Hvert skyllda eg þá láta adra opna módurkvidenn, enn siálfur eigi einnenn fæda, seger Drottinn? skyllda eg láta adra fæda, og siálfur óbyria vera, seger þinn Gud?

10. Gleded ydur med Jerusalem, og vered glader yfer henne, þer aller sem hana elsked: fagned medur henne, þer aller sem hrigger vorud yfer henne.

11. Þviad þar fyrer skulud þer siúga, og sadder verda, af brióstum hennar huggunar. Þer skulud þar fyrer siúga, og ydur endurlífga, út af þeirre gnægdenne hennar dyrdar.

12. Þviad so seger Drottinn: siáed! eg útbreide fridenn hiá henni, líka sem annad vatnsfall, og dyrdena heidingianna, so sem annann yfersliotanda vatnslæk, þá munud þer siúga. Þer skulud á hlidenne borner verda, og í kniánum munu menn ydur hallda.

13. Eg vil hugga ydur, líka so sem þad einhver huggar hans móder. Já! þer skulud í Jerusalem endurnærder verda.

14. Þer munud siá þad, og ydart hiarta mun gledia sig, og ydar bein skulu blómgast sem annad gras; þá mun þeckiast hønd Drottins á hans þiónum, og reidinn á hans óvinum.

15. Þvi siáed! ad Drottinn mun koma med ellde, og hans vagn sem annad stormvidre, þad hann endurgiallde í grimmd sinnar reide, og hans straff í elldsins loga.

16. Þviad Drottinn mun fyrer elldenn, og fyrer sitt sverd dæma allt holld, og þeir hiner líflátnu af Drottne munu marger vera.

17. Þeir ed sig helga og hreinsa í þeim grasgørdunum, einn her, enn annar þar, og eta svína kiøt, andstyggd og mys. Þeir skulu tilsamans í burt svipter verda, seger Drottinn.

18. Þviad, eg vil koma og samansafna þeirra verkum, og hugrenningum, ásamt med øllum heidingium og tungumálum, so ad þeir kome og siáe mína dyrd.

19. Og eg mun gefa eitt teikn á medal þeirra, og nockora út af þeim, sem frelsader eru, senda til þeirra heidnu vid siáfar hafid til Phul og Lud, til Bogmannanna, til Thubal og Javan, og langt í burt til Eyanna, þar menn hafa eigi neitt út af mer heyrt, og þeir ed eigi hafa sed mína dyrd, og þeir skulu kunngera mína dyrdar vegsemd á medal heidingianna.

20. Og þeir munu alla ydra brædur út af øllum heidingium her til leida, Drottne til matar offurs, á hestum og vøgnum, á børum, á mulum og hlaup dyrum, til Jerusalem, til míns heilaga fialls, seger Drottenn. Líka so sem Israels børn færa sínar matarfórner, í hreinum køtum til húss Drottins.

21. Og eg vil út af þeim sømu taka kennemenn og Levíta, seger Drottinn.

22. Þviad so sem sá nye himenenn og sú hin nya jørdenn, sem

eg gere, standa fyrer mer, seger Drottenn: líka so skal einnenn ydart sæde og nafn standa.

23. Og allt holld mun einn mánud epter annann, og einn sabbathsdag epter annann, koma til ad tilbidia fyrer mer, seger Drottinn.

24. Og þeir munu útganga, og siá á hræ þess fólks, sem misgiert hefir vid mig. Þviad þeirra madkur mun ei deya, og þeirra elldur mun ei útslockna, og þeir munu øllu hollde ad andstyggd verda.

Ending Prophetans Esaiæ.

# Prophetenn Jeremias.

## 1. Capitule.

1. Þesse eru ord Jeremia, sonar Hilkia, út af þeim kennemønnum til Anathoth, í Benjamins lande.

2. Til hvers ad skede ord Drottins, í tíd Josiæ sonar Amons, kongsins Juda, á því hinu þrettanda ári hans kongsríkes.

3. Og þar epterá, í tíd kongsins Juda Joakims, sonar Josia, allt til enda þess elleffta ársins Zedekia, sonar Josia, kongsins Juda, allt til herleidingar Jerusalem, á þeim fimmta mánade.

4. Og ord Drottens þad skede til mín, og sagde:

5. Eg þeckta þig ádur enn þad eg tilbió þig í módurkvide, og adskilde þig, fyrre enn þad þú varst fæddur af módurinne, og sette þig til spámanns medal folksins.

6. Enn eg sagde: óho Drottenn! Drottenn! eg duge eigi til ad predika, þviad eg em of ungur.

7. Enn Drottenn sagde til mín: seg þú eigi: eg em of ungur, helldur þá skalltu fara burt þangad sem eg sende þig, og predika þad, hvad eg byd þer.

8. Ver þú eigi hræddur vid þá, þviad eg em hiá þer, og eg vil frelsa þig, seger Drottenn.

9. Og Drottinn rette út sína hønd, og áhrærde minn munn, og sagde til mín: siá þú! eg legg mín ord í þinn munn.

10. Siá þú! ad eg sét þig á þessum deige yfer þióder og kongaríke, so ad þu skallt uppslíta, ísundurbrióta, í eyde leggia, og fordiarfa, og uppbyggia, og gródursetia.

11. Og ord Drottins þad skede til mín, og sagde: Jeremia! hvad ser þú? eg sagde: eg se einn vakande staf.

12. Og Drottinn sagde til mín: þad hefir þú rett sed, þviad eg vil vakande vera yfer mínu orde, so ad eg gere þad.

13. Og ord Drottins þad skede til mín í annad sinn, og sagde: hvad ser þú? eg sagde: eg se einn siódande pott af nordrenu.

14. Og Drottinn sagde til mín: af nordrenu mun óluck út brióta, yfer alla þá, sem í landenu búa.

15. Þviad siá þú! eg vil tilsamans kalla alla høfdingiana í kongaríkiunum móte nordrenu, seger Drottinn: so ad þeir skulu koma, og setia sína stóla fyrer borgarhlidunum til Jerusalem, og

umhverfes kringum múrveggena, og fyrer øllum stødum í Juda.

16. Og eg vil láta rettenn ganga yfer þá, fyrer saker allra þeirra illgyrne, ad þeir yfergefa mig, og gefa reykelse annarlegum gudum, og tilbidia sín handaverk.

17. So umgyrd þú nú þínar lendar, og ger þig reidubúenn til ad predika þeim allt þad, hvad eg skipa þer. Ottast þá eigi, so sem ad skyllda eg fræfkelsa þig.

18. Þviad eg vil í dag gera þig ad einnre øruggre borg, ad einum járnstolpa, ad koparmúr í øllu landenu, ígegn þeim kongenum Juda, ígegn þeirra høfdingium, ígegn þeirra kennemønnum, ígegn þvi fólkenu landsins.

19. So þó ad þeir stríde á móte þer, þá skulu þeir þó eigi yfervinna þig, Þviad eg em hiá þer, seger Drottinn, ad eg frelse þig.

20. Og ord Drottins þad skede til mín, og sagdi:

21. Far þú og predika opinnberlega til Jerusalem, og seg þú: so seger Drottinn: eg minnest á þad, þá þú varst ein liufleg ung meya, og ein elskuleg brúd, þá ed þú fylgder mer í eydemørkenne, í þvi landenu, sem menn eigi sádu.

22. Þar ed Israel var eign Drottins, og hans fyrste ávøxtur. Hver sem ad villde hann uppeta, sá hlaut fyrer skulldu ad verda, og ógæfan hlaut yfer haun ad koma, seger Drottinn.

## 2. Capitule.

1. Heyred ord Drottins, þer af húse Jacobs, og þer allar kynkvíslar af húse Israels!

2. So seger Drottinn: hvern brest hafa ydrir forfedur funded á mer, ad þeir í burt viku so frá mer, og ábengu þeim ónytum afgudum, af þeim þó, er þeir ødluduft ei neitt?

3. Og hugleiddu þad eigi ne einusinni, hvar er sá Drottenn, sem oss hefir út flutt af Egyptalande, og leiddi oss í þeirre eydemørkenne, í þvi eyde og óvega lande, í þui þurra og myrka landenu, í þvi landenu sem enginn fer yfer, og engenn madur byr?

4. Og eg flutte ydur inn í eitt godt land, so ad þer skylldud neyta þess ávaxtar og landgæda, og þá ad þer komud þar inn, saurgud þer mitt land, og gerdud mína arfleyfd ad svívirdingu.

5. Prestarner hugsudu eigi, hvar er Drottinn? og þeir hiner lærdu skeyttu eigi um mig, og hyrdararner burtleiddu fólked frá mer, og prophetarner spádu út af Baal, og áhengu þeim ónytum afgudum.

6. Eg hlyt alltiafnt ad þrátta vid ydur, og vid ydar barna børn, seger Drottinn.

7. Fared burt í þær eyarnar Chithim, og hygged ad, og sended til Kedar, og merked med athygle, og siáed, hvert ad þar gengur so til.

8. Hvert þad hiner heidnu gera umskipte á sínum gudum, þó ad þad seu eigi neiner guder? og mitt fólk hefir þó umskipt sinne dyrd í einn ónytann afgud.

9. Himenenn skyllde þó grúa þar fyrer, hrædast og miøg skeifast, seger Drottinn.

10. Þviad mitt fólk þad gerer eina tvøfallda synd mig, þá lifande uppsprettu, yfergefa þeir, og gera ser her og þar útbøggna brunna, sem þó eru leker, og hallda eigi vatnenu.

11. Hvert er þá Israel einn

þion, edur einn þræll, þad hann blytur ad vera hvers manns her fang?

12. Þviad Leonenn þau grenia yfer hønum, og foreyda hans land, og uppbrenna hans borger, so ad engenn byr þar inne.

13. Ad auk þessa, þá sundurslá þeir af Noph, og Thachpanhes þitt høfud.

14. Soddan þá gerer þú þer siálfur, af þvi þú yfergefur Drottinn Gud þinn, so opt sem þad hann vill leida þig á rettann veg.

15. Hvad hiálpar þad þer, ad þú fer í Egyptaland, og villt drecka þad vatned Sihors, og hvad hiálpar þad þer, ad þu fer burt í Assyriam, og villt drecka þad vatn Phrath?

16. Þvi velldur þín illgyrne, ad þú verdur so húdstrýktur, og þin óhlydne, ad þú þ uneun straffast. So blytur þú ad fá ad vita og formerkia, hverá eymd og hiartans angur þad gerer, ad yfergefa Drottinn Gud þinn, og ad óttast hann eigi, seger Drottinn, sá Drottinn Zebaoth.

17. Þviad þú hefir allt jafnt þitt ok ísundurbroted, og þín bønd ísundursliteð, og sagt: eg vil eigi þannenn underg.fenn vera, helldur hlióp þú uppa allar hæfar hædder, og under øll blomgud tre epter hóranenne.

18. Enn eg hafde þig plantad til eins sætlegs vínvidar, eitt nærsta velstickad sæde. Hvernenn ertu þá vordenn fyrer mer ad einum beiskum villvínvid?

19. Og nú, þó ad þú þvæger þig med lud, og tæker þar mikla sápu til, þá byrtest þó þess meir þín ódygd fyrer mer, seger Drottinn Drottinn.

20. Hvernenn dyrfest þú þá ad segia: eg em eigi saurugur, eg á heing eigi Baalam? hygg ad, hvad þú hefst ad í dalnum, og hugleid þú ad, hvernenn þú hefir þvi af stad komed.

21. Þú hleypur umkring sem ønnur uifalldt fylia í bruntid, og sem annad skógdyr epter vatne í eydemørkenne, nær ed þad af støruns gyrndarbruna gaper og hleypur, so ad engeum fær þvi aptur halldeð, hver ed þad vill vita, sá þarf eigi langt ad leita, á helgedøgum sest þad vel.

22. Kære stóda þig! og hlaup eigi þinn føt módann, edur þinn háls þyrstann, enn þú seger: skyllde þad vera útgert? nei enganneigenn, eg hlyt vidur þá annarlegu ást ad leggia, og epter þeim ad hiaupa.

23. Líka sem annar þiófur hann verdur til skammar, nær ed hann verdur gripenn, eins líka so mun Israels hús til skammar verda, ásamt med sínum kongum, høfdingium, prestum og prophetum.

24. Þeir ed til tresins segia: þú ert minn fader; og til steinsins: þú hefir fæddann mig. Þvi þeir snúa bakenu vid mer, og eigi andlitenu. Enn nær ed neydenn yfer gengur, þá segia þeir: upp þú! og hiálpa oss.

25. Enn hvar eru þá þíner Guder, sem þú hefir gert þer? bid þú þá upp ad standa: láttu siá hvert ad þeir kunna ad hiálpa þer í neydenne. Þvi þú Juda! hefir so marga Gude, sem þú hefir borger.

26. Hvert viljed þer enn hafa rett á móte mer? þer erud aller frá mer affallner, seger Drottinn.

27. Allar álagur vid ydar børn eru til so gefens, þau láta þó ei halldur menta sig, af þvi ad ydart sverd uppsvelger líka einnenn yd-

ar propheta, so sem annad grimmdarfullt Leon.

28. Pú hin vonda ætt! gæt þú ad ordú Drottins: hvert em eg vordenn Israel til einnrar eydemerkur, edur til eins evdelands. Hvar fyrer seger þá mitt folk? ver erum herrarner, og meigum ei hlaupa epter Þer.

29. Ein jomfru forgleymer ei sínu skarte, eg eigi helldur ein brúd sínu høfudsilfre, enn mitt folk, það forgleymer mer æsinlega.

30. Hvar fyrer pryder þú þinn gerning so miøg, ad eg skule þer miskunsamur vera? under þeirre ásynd þá fremur þú æ þess meire illgyrne.

31. Þar ad auk, þá finnst einnenn hiá þer blóded fátækra og saklausra sálna, í øllum stødum, og er ei heimuglega, helldur openberlega í þeim sømu stødum.

32. Þó seger þú samt: eg em saklaus, hann snúe sinne reide í frá mer. Siá þú! eg vil ganga í dóm vid þig, ad þú seger: eg hefe eigi syndgast.

33. Hvar fyrer frávíkur þú so giarnann, og dettur so hingad og þangad? enn af Egyptalande muntu til skammar verda, so sem þú ert af Assyria til skammar ordenn.

34. Þviad þú hlytur einnenn í burt þadann fara, og slá þínum høndum tilsamans yfer þínu høfde. Þviad Drottinn mun láta þína von bregdast, og hiá þeim mun þer eigi vel luckast, og seger.

35. Nær ed madurenn lætur skilia sig vid sína eignar konu, og hún fer í burt frá hønum, og tekur einn annann mann, þorer hann þá nockud ad taka vid henne aptur? er eigi so, ad þá yrde landed saurgad. Enn þú hefir hóraner drigt med mørgum elskhuga, kom þú þó samt aptur til mín, seger Drottinn.

36. Upplypt þú þínum augum til þeirra hædanna, og gæt ad því, hvernenn þú dríger hóraner alla vega. Vid veigenn situr þú, og tekur vara á þeim, líka sem einn Arabiare í eydemørku, og saurgar landed, med þinne hóran, og illsku.

37. Þar fyrer skal og einnenn morgunregnid vera í burtu, og ei neinar kvølldskurer koma.

38. Þú hefir einnrar hórkonu enne, þú villt eigi lengur þín skammast, og kallar þó líka samt til mín: kære fader! þú meistare míns ungdoms!

39. Vill þú þannenn reidast alla æfe, og láta eigi af grimmdarheiptenne? siá þú! þú kenner og gerer illa, og lætur eigi ráda vid þig.

## 3. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til mín, í tíd kongsins Josia: hefir þú og sed, hvad sú hin fráfallna Israel gerde? hún geck í burt uppá øll hin háu fiøllinn, og under øll blomgud tre, og drygde þar hóraner.

2. Og eg sagde: þá ed hún hafde gert allt þetta. Snú þer til mín, enn hún snere ser eigi. Og þó ad hennar hin forhardnada syster Juda sæe.

3. Hversu ad eg straffade þær hóraner hinnar frafollnu Israel, og bad eg forlet hana, og gaf henne skilnadar skrá, þó hræddest hennar forhardnada syster Juda það eigi ad helldur, helldur geck hún í burt, og drígde einnenn líka hóraner.

4. Og út af hennar hórunar háhliódan er landed saurgad, því

hún drígde hóraner vid steina og stocka.

5. Og í øll þessu þá snere ser eigi hennar hin forhardnada syster Juda til mín, af øllu hiarta, helldur voru þad eigi utann læte hennar, seger Drottinn.

6. Og Drottinn sagde til mín: hin fráfallna Israel er god, framar enn sú hin forhardnada Juda.

7. Far burt og predika só imót nordrenu, og seg: snú þer þú hin fráfallna Israel! seger Drottinn: þá vil eg eigi láta mína reide koma yfer ydur, þviad eg em miskunsamur, seger Drottinn: og vil eigi reidast æfenlega.

8. Vidurkenn þú ad eins þinn misgerning, ad þú hafer syndgast á móte Drottne Gude þínum, og hlauped hingad og þangad til annarlegra Guda, under øll blomgud tre, og þú hefir viliad heyra mína raust, seger Drottinn.

9. Þer hin fráføllnu børn, snúed ydur, seger Drottinn: þviad eg vil trúlofa mig ydur, og eg vil sækia ydur, einn af hverre borg, og tvo af hverum ættlegg, og eg vil innleida ydur til Zion.

10. Og eg vil gefa ydur hyrdara epter minu hiarta, sem ydur skulu fæda med kenningum og vísdóme.

11. Og þad skal ske þá, nær ed þer erud uppvaxner, og marger ordner í landenu, þá skal í þann tíma (seger Drottinn) eigi meir sagt vera af sáttmáls ørkenne Drottins, og menn munu hana eigi meir huzleida, ne þar af predika, ne hennar vitia, ne lengur þar fórner færa.

12. Helldur í þann sama tíma þá skal Jerusalem kallast tignarsæted Drottins, og aller heidingiar skulu samansafna ser, þangad til Jerusalem, fyrer saker þess nafnsins Drottins. Og þeir munu eigi lengur ganga epter þeirra siálfs vondum hiartans hugrenningum.

13. A þeim tíma mun húsed Juda ganga til hússens Israels, og munu so koma hvert med ødru af nordrenu, inn í þad landed sem eg gaf ydrum forfedrum til arftøku.

14. Og eg tilsege þer, hvernenn vil eg gefa þer so mørg børn? og þad góda landed, þá føgru arfleifdena, sem er heidingianna her? og eg tilseige þer, ad þú skallt þá kalla mig lifsann fødur, og burtvíkia eigi frá mer.

15. Enn húsed Israels skeyter mer eigi, líka sem sú kvinna sem eigi sæter sínum ástmanni lengur, seger Drottinn.

16. Þar fyrer munu menn heyra aumlega kveinan og grát Israels barna, á þeim upphædunum, fyrer þad þeir gerdu illa, og forgleymdu Gude sínum.

17. So snúest nú aptur, þer hin fráføllnu børn! þá vil eg lækna ydur, útaf ydare óhlydne. Siá þú! ver komum til þín: þviad þú ert Drottinn Gud vor.

18. Sannarlega, þad er eigi útann svikræde med þær hædernar, og med øll fiøllenn. Sannarlega, þá hefir Israel enga hiálp, útann af Drottne vorum Gude.

19. Og þad erfided fedra vorra, sem ver høfum hallded úngdom vorn af, þad hlytur med vanvirdu ad fyrerfarast, ásamt med þeirra saudum, nautum, sonum og dætrum.

20. Þviad þad, hvad ver vonudum uppá, þad er oss nú til skammarennar einnrar, og á þvi, hveru ver høfum vort traust, þess hliótum ver nú ad skammast vor.

Þviad ver syndgudumst þar med á móte Drottne Gude vorum, bæde ver og vorer forfedur, í frá barndóme vorum, allt inn til þessa dags, og hlyddum eigi raustenne Drottins Guds vors.

## 4. Capitule.

1. Vill þú snúa þer Israel, seger Drottinn: þá snú þer til mín. Og ef þú villt burttaka þína svívirding frá mínu auglite, þá skalltu eigi útdrifenn verda.

2. Þá muntu og sveria hræsnislaust, rettvíslega, og heilaglega, (so sannarlega sem Drottinn lifer) og hiner heidnu munu í hønum blessader verda, og hrósa ser af hønum.

3. Þviad so seger Drottinn til þeirra í Juda og Jerusalem: plæged ad nyu, og sáed eigi á medal þyrnanna.

4. Umskered ydur fyrer Drottne, og burttaked yferhudena ydars hiarta, þer menn í Juda, og þer sem búed í Jerusalem! uppá þad ad mín reide skule eigi útfara sem elldur, og brenna, so ad engenn kunne út ad sløcka, fyrer ydrar illsku saker.

5. Já kunngered þad í Juda, og kalled háti í Jerusalem, og seged. Bláśed í herludra í landenu: kalled med fullum hliódum, og seged. Samansafned ydur, og látum oss fara inn í þær sterku borgernar.

6. Seted upp merked í Zion: safned ydur tilsamans og dveled ei vid. Þviad eg flyt eina ógæfu, og stóra eymd, hingad frá nordrenu.

7. Þad Leoned kemur, farande hingad úr sínum busk, og sá fordiarfarenn heidingianna er útfarenn af sínum stad, ad hann foreyde þitt land, og uppbrenne þína stade, so ad engenn búe í þeim.

8. Þar fyrer íklædest seckum, syrged og syted, þviad sú grimmdar reide Drottins vill eigi stillast yfer oss.

9. Á þeim tíma skulu hiørtunn konganna og høfdinganna blaut verda, seger Drottinn, prestunum skal ofbioda, og prophetarner hrædast.

10. Enn eg sagda: Drottinn! Drottinn! miøg hefir þú láted þessu fólke, og Jerusalem, þad bregdast, þá þeir søgdu: Þar mun hiá ydur fridur vera, og sverded er þó komed allt til sálarennar.

11. Á þeim sama tíma mun segiast til folks þessa, og til Jerusalem. Þar kemur einn þurr vindur hingad, yferum fiøllenn, so sem af eydemørkenne, á þann veigenn sem liggur til dotturennar míns fólks, eigi til ad vinsa edur ad hreinsa med.

12. Já, þar skal koma einn vindur, sem skal verda þeim ofsterkur, þá vil eg og ganga í dóm vid þá.

13. Siá þú! hann kemur, farande hingad sem skyed, og hans vagnar eru so sem annad stormvedur: hans hestar eru fliótare enn ernir: vei oss! ver munum í eydelagder verda.

14. So þvo þú nú Jerúsalem þitt hiarta af illskunne, so ad þer verde hiálpad! hversu lenge skulu þeir slæmu lærdomar hiá þer vera?

15. Þviad þar kemur eitt hróp frá Dan, og ill tídende frá fiallenu Ephraim.

16. Hvernenn heidingiar hrósa ser. Og þad hefir hliomad allt til Jerusalem, ad þar kome vaktarar úr fiarlægum løndum, og munu æpa imóte stødunum Juda.

17. Þeir munu umsitia þá allt umkring, so sem adrer vaktarar

um grundernar, þviad þeir hafa mig til reide reittann, seger Drottinn.

18. Þad hefir þú til verdlauna fyrer þína breytne, og þín verk, þá mun þitt hiarta finna, hversu mikel ad er þín illska.

19. Hvernenn er mer so hiartanlega illt: mitt hiarta þad flakrar í mínu brióste, og hefir enga hvlldar ró, þviad mín sála heyrer herludursins hlióð, og bardagans slag.

20. Og hvert dauda hróp epter annad. Þviad allt landed verdur í eyde lagt, mínar herbúder og landtiølld verda skyndelega nidurrifenn.

21. Hversu lenge á eg þó ad siá þau merkenn, og heyra herludursins hlióð?

22. Enn mitt folk er galed, og trúer mer eigi; heimsker eru þeir og skeyta þvi ei. Nogu hyggner eru þeir til illt ad gera, enn vel ad gera, vilia þeir eigi læra.

23. Eg leit á landed, siá þú! þad var tómt og í eyde, og á himnenn, og hann var myrkur.

24. Eg leit til fiallanna, og siá þú! ad þau hristust, og allar hæder þær skulfu.

25. Eg sá, og siá þú! ad þar var engenn madur, og aller fuglar under himnenum voru í burt flogner.

26. Eg sá, og siá þú! þad akrarner voru í eyde, og aller staderner á þeim voru nidurbrotner fyrer Drottne, og fyrer hans grimmdar reide.

27. Þviad so seger Drottinn: þad allt landed skal foreydt verda, og þó vil eg eigi ølldungis fordiarfa þad.

28. Þar fyrer skal landed verda hørmulegt, og himenenn þar fyrer ófan sorgarlegur, af því, ad eg hefe talad þad, eg hefe ályktad þad, og eg skal eigi angra mig um þad, eg vil ei helldur láta af því.

29. Aller staderner skulu flyá fyrer því riddara og skotmanna herópenu, og í burt hlaupa á þickar skógar merkur, og innskeida í biørgenn: aller staderner skulu yfirgefner verda, so ad engenn skal þar inne búa.

30. Þú hin nidurbrotna! hvad villtu þá til gera? enn þó ad þú skrydder þig med purpura klædum, og med gullegum gersemum, og prydder þitt andlit, þá skrydder þú þig þó til forgefins, þviad þeir sem nú látast lúta þer, þeir munu fyrerlyta þig, þeir munu stunda epter þínu life.

31. Þviad eg heyrda eitt hróp, líka sem þeirrar, ed fæda skal, eina kveinan, so sem þeirrar, sem ad er í sinne fyrstu fædingarhríd. Þau háhliodenn dotturennar Zion sem ad grætur, og útretter hendurnar, ah, vei mer! eg hlyt nú med øllu nidur í grunn ad forganga fyrer manndrápenu!

## 5. Capitule.

1. Gamged gegnum gøturnar til Jerusalem, og siáed til, og gefed gaum ad, og leited á hennar strætum, hvert ad þer finned nockurn þann, sem rett gerer, og spyrer epter trúnne, so vil eg vera henne miskunsamur.

2. Og enn þó ad þeir sege: vid þann lifanda Gud, þá sverá þeir þó falsklegana.

3. Drottinn! þín augu ályta trúna: þú slær þá, enn þeir kenna eigi til þess. Þú þvingar þá, enn þeir forbetra sig eigi: þeir hafa hardara andlit enn hellusteinn, og vilia eigi snúa ser.

4. Enn eg þeinkta, nú vel, sá aume flockur er skinlaus, vitande eigi neitt af Drottins veige, og af síns Guds rettindum.

5. Eg vil ganga til þeirra volldugu, og tala vid þá, þeir hinir sømu munu vita af veige Drottins, og síns Guds rettindum, enn allersamann þeir høfdu oked ísundurbroted, og toginn sundurslited.

6. Þar fyrer mun og einnenn þad Leoned sem af skógenum kemur ísundursliita þá, og sá ulfurenn úr eydemørkenne mun fordiarfa þá, og sá Pardus mun umsitia þeirra borger: hann mun upp eta þá alla sem þar útganga, þviad þeirra synder eru ofmargar, og þeir eru forhardnader í sinne óhlydne.

7. Hvernenn skal eg þer þá miskunsamur vera? med því ad þín børn yfirgefa mig, og sveria vid þann, sem engenn Gud er. Og nú, þá eg hefe mettad þau, drígia þau hóraner, og hlaupa í skækna hús.

8. Hver sem einn þá hugser epter eignarkonu síns náunga, so sem ofalder laufer stódhestar.

9. Og eg skyllda eigi fyrer slíkra hluta saker vitia þeirra, seger Drottinn; og mín sála skyllde eigi hefna sín á soddann fólke sem þetta er?

10. Stormed til þeirra múrveggia, og fleyged þeim um koll, og ogged þó þó ei med øllu í eyde. Og burtflyted þeirra vínvidar kvistu, þviad þeir eru eigi Drottins.

11. Helldur þá forsmá þeir mig, bæde þad húsed Israels, og þad húsed Juda, seger Drottinn.

12. Þeir afneita Drottne, og segia: eigi er hann þad, og eigi mun þad vegna oss so illa, sverd og hungur munum ver eigi siá.

13. Já þeir prophetarner eru skialarar, og hafa eigi Guds ord. Kome þad so yfer þá siálfa.

14. Þar fyrer seger Drottinn Gud Zebaoth: med því þer taled soddan ord, siá þú! þá vil eg gera mín ord í þínum munne ad elde, og folk þetta ad vidartriám, og hann skal foreyda þeim.

15. Siá þú! eg vil fæ ra yfer ydur af húse Israels eitt folk úr fiarlægum stødum (seger Drottinn) eitt megtugt folk, hvert þad fyrsta folk hefir vered, eitt folk hvers tungumál þú skilur eigi, og hvad þeir tala þá muntu þad ei underſtanda.

16. Þeirra pílna koffur eru opnar grafer, aller eru þeir risar.

17. Þeir munu fortæra þinne haust vinnu og þínu braude. Þeir munu upp eta þína syne og dætur, saude þína og naut munu þeir uppsuelgia: þeir munu foreyda þínum vínvide og fikiutriám: þeir munu med sverde fordiarfa þínar ørugga borger, sem þú hefir þitt traust uppá.

18. Og eigi vil eg alldungis í eydeleggia ydur á þeim sama tíma, seger Drottenn.

19. Og ef ad þeir villdu þá segia: hvar fyrer gerer Drottenn Gud vor oss allt þetta? þá skalltu svara þeim. Líka sem ad þer yfergáfud mig, og þiónudud annarlegum Gudum í ydru eigenn lande, so skulud þer og þióna annarlegum, í einu þvi lande, sem eigi er ydart.

20. Þetta skulud þer kunngera í húse Jacobs, og predika í Juda, og segia:

21. Hlyded til þer fávíst folk, sem hafed engann skilning! þer sem hafed augunn og siáed eigi, hafed eyrunn og heyred eigi!

22. Viled þer eigi óttast mig,

seger Drottenn, og skelfast eigi fyrer mer? eg sem sette sandenn til siáfarbackans, innann hverra takmarka hann hlytur alla tíma ad vera, og má þar eigi yfergenga. Og þverfu sem hann belgist, þá orkar hann einskis, og þó ad hans bylgiur ædi þar áframm þá meiga þær þó eigi þar yferganga.

23. Enn þetta folk hefir eitt fráfallande óhlydugt hiarta, þeir bliefa fráfallner, og ganga ætíd leingra í burt.

24. Og þeir segia eigi einu sinne í sinu hiarta: látum oss óttast Drottenn Gud vorn, sem oss gefur morgun døggena og kvølld regnid í rettann tíma, og vardveiter vora haustyrkin trúlega árlega árs.

25. Enn ydar illsku verk þau forhindra þad, og ydrar synder þær snúa þvilíkum góda frá ydur.

26. Þviad þar finnast ógudhrædder á medal míns folks, þeir sem liggia til lægis, og setia snøru fyrer fó'ked ad veida þad, líka sem þad fuglarenn gerer medur sínum veidebrellum.

27. Og þeirra hús eru full med fyndugskap, líka sem eitt fuglabur er fullt med tálfugla.

28. Þar út af verda þeir megtuger og ríker, feiter og feitsleiger. Þeir fara med illskupar, þeir hallda engann rettinde, þeir frammkvæma eigi málefned hins fødurlausa, og þad luckast þeim þó, og þeir hiálpa eigi hinum fátæka til rettinda.

29. Skyllde eg þá eigi vitia slíks, seger Drottenn: og skyllde mín sál eigi hefna sín á soddann fólke sem þetta er?

30. Þad stendur hrædelega og ognarlega til í landenu.

31. Prophetarner kenna lygar, og prestarner þeir yferdrottna í sínu embætte, og mitt fólk vill giarnann hafa þad so. Hvernenn mun ad sídurstunne þad vilia ydur vegna yfer slíku?

## 6. Capitule.

1. Þer Benjamins børn! samansafnid ydur af Jerusalem, og bláseð í ludrana á vardhalldenu í Thekoa, og seted upp eitt merke á þvi vardhalldenu Beth Cherem. Þviad þar gengur ein ógæfa framm af nordrenu, og ein mikel eymd.

2. Dotturenn Zion hún er líka sem eitt fagurt og lystelegt einge.

3. Enn þar munu hyrdarar koma yfer hana med sína hiørd, þeir munu slá sínum landtiølldum upp kríngum hana, og beita hver í sínu takmarke, og segia:

4. Búed ydur til bardaga á móte henne. Standed upp, ver vilum fara upp þangad, á medann þad enn nú er hár dagur, eya! þad vill kvøllda, og skuggenn gerest mikell.

5. Nú vel! látum oss vera uppe, skylldum ver á náttarþele uppfara þangad, og fordiarfa hennar haller.

6. Þviad so seger Drottenn Zebaoth: afhøggid tren, og gered vernd á móte Jerusalem, þviad hún er sú borg, sem heimsokt skal verda, þvi þar inne eru eigi utan ránginðenn ein.

7. Þviad líka sem annar brunnur uppveller sínu vatne, so uppvellur og einnenn hennar illska. Hennar ránginde og yfergangur kallar yfer henne, og þeirra mord og sløg fremia þeir daglega fyrer mer.

8. Ger þú yferbot Jerusalem! ádur enn þad mitt hiarta snúi ser burt frá þer, og þad eg gere þig

ad einu eydelande, þar inne ed engenn byr.

9. So seger Drottinn Zebaoth: hvad epter er vorded af Israel, þad skal og líka seinna meir afleſed verda so sem af ødru vínviþartre. Enn hann, sem vínberenn les, mun kasta hverum epter annat í kørfena.

10. Ah! vid hvern skal eg þó tala, og þad vitna? so ad nockur villde þad heyra? enn þeirra eyru eru ei umskorenn, þeir geta eigi heyrt þad. Sí! þu! þeir hallda ord Drottens fyrer speſkap, og vilia þad eigi.

11. Þar fyrer em eg so fullur af heitingum Drottins, ad eg kann ei af ad láta, ad ausa þeim út, bæde yfer børnenn á strætunum, og yfer þá fullordnu í rádenu, alla tilsamans, þviad bæde menn og konur, bæde gamler og ørvasa þá skulu þeir herleidder verda.

12. Þeirra hús skulu verda útlendum ad hlutskipte, ásamt medur þeirra akurløndum og húsfreyum, þviad eg vil útretta mína hønd, seger Drottenn, yfer landsins innbyggendur.

13. Þviad þeir eru aller ágiarner, bæde smáer og stórer, og bæde prophetarner og prestarner þá kenna aller tilsamans falsklega Guds þiónustu.

14. Og hugga mitt folk í sinne ógæfu, ad þeir skulu lítt skeyta um þad, og segia: fridur, fridur; og þar er þó eigi fridur.

15. Þar fyrer munu þeir til skammar verda, ad þeir fremia soddann svívirdingar, þó vilia þeir samt óskammader vera, og vilia eigi skammast s n. Þar fyrer hlióta þeir ad falla í eina hrúgu, og nær ed eg verd þeirra vitiande, þá skulu þeir falla, seger Drottinn.

16. So seger Drottenn: stíged uppá veguna, og skygneſt um; og spyred epter þeim hinum forna veigenum, hver ad se sá hinn góde vegurenn, og ganged á þeim hinum sama, þá munud þer hvílld finna fyrer ydrar sáler. Enn þeir segia: ver vilum þad eigi gera.

17. Eg hefe sett vøkumenn yfer ydur: gefed gaum ad trometunnar hliódе, enn þeir segia: ver vilium þad eigi gera.

18. Þar fyrer þá heyred þer heidingiar! og gæted ad þvi med ydru fólke.

19. Þú jørd hlyddu til, siá þú! eg vil innsiytia yfer þetta folk eina ógæfu, sem er þeirra forþenud laun, af þvi þeir akta eigi mín ord, og í burtkasta mínu løgmále.

20. Hvad skeyte eg um reykelsid, sem kemur út af þvi ríke Arabia, edur um þann góda kannelbørkeyn sem kemur úr fiarlægum løndum? ydart brenneoffur er mer eigi þacknæmelegt, og ydrar forner þocknast mer eigi.

21. Þar fyrer seger Drottenn so: siá þú! eg vil setia eina hneixlan á medal folks þessa, á hvera þad þeir skulu sig reka, bæde fedurner og børnenn tilsamans, og hver nágrannenn med ødrum skal tortínast.

22. So seger Drottenn: siá þú! þar skal koma eitt fólk af nordrenu, og eitt miked folk mun uppvekia sig hardt nærri voru lande.

23. Sem hafa boga og skiølldu; þeir eru hrædeleger og miskunarlauser. Þeir koma þiótande sem annar stórsiór, og rida á hestum, herklædder sem stridsmenn, á móte þer, þú dotturenn Zion!

24. Nær ed ver heyrum af þeim, þá munu vorer hnefar nidur síga,

ver munum hafa angiſt og ſott, ſem ſú ed fæda ſkal.

25. Engenn gange út á akurlendenn, engenn gange úta vellina, þviad alla vegana er þar háſkaſamlegt fyrer óvinanna ſverde.

26. O þú dotturenn míns folks! klæd þig í ſeck, og legg þig í oſku, harmadu líka ſem fyrer einum einka ſyne, og ſyrg ſo ſem ſá ed nærſta miog er ſorgbitenn. Þviad fordiarfarinn kemur miog ſkyndelega yfer oſs.

27. Eg hefe ſett þig til eins nidurſmelltara, á medal míns fólks, ſem er ſo hardt, ad þú ſkallt reyna og prófa þeirra breytne.

28. Allerſaman eru þeir fráfallner, og ganga ſvikſamlegana. Aller eru þeir fordiarfadur kopar og járn.

29. Smidiubelgurenn er uppbrenndur, blyed í burt hverfur, ſmelltingenn er til forgefens. Þuiad þad hid vonda eigi fráſkiled.

30. Þar fyrer kallaſt þeir einnenn eitt burtkaſtad ſilfur, þviad Drottinn hefir útſkufad þeim.

## 7. Capitule.

1. Þetta er þad ord, hvert ed ſkede af Drottne til Jeremia, og ſagde:

2. Gack þú í dyrnar á húſenu Drottins, og predika þar þetta ord, og ſeig: heyred ord Drottens, þer aller af Juda, ſem um þeſſar dyr inngangid ad tilbidia Drottinn!

3. So ſeger Drottenn Zebaoth, Gud Iſraels: betrid ydarn lifnad, og athæfe, þá vil eg byggia hiá ydur í þeſſum ſtad.

4. Treyſted eigi uppá lygena, þá þeir ſegia: her er muſtere Drottins, her er muſtere Drottins.

5. Helldur þá bæted ydarn lifnad og athæfe, ſo ad þer gered rett hver odrum.

6. Og þeim útlendu, foburlausum og eckiunum þá gered eigi neitt ofrike, og úthelled eigi neinu ſaklauſu blóde í þeſſum ſtad. Og eyterfylged eigi annarlegum Gudum til ydars eigennlegs ſkada.

7. Þá vil eg um allder og æfinnlega búa hiá ydur í þeſſum ſtad, í þvi landenu, ſem eg gaf ydrum forfedrum.

8. Enn nú treyſted þer uppá lygar, ſem engenn gagnſeme er ad.

9. Þar til med þá erud þer þióſar, manndráparar, hórkarlar, meinſæriſmenn, og bered reykelſe Baal, og eyterfylged annarlegum Gudum, ſem þer þeckeð eigi.

10. Þar epter á, þá komed þer, og ganged fyrer mig í þeſſu húſe, ſem ad nefndt er epter mínu nafne, og ſeged: þad hefir enga naud med oſs, af þvi ver gerum ſoddan ſvívirding.

11. Hvert halldeð þer þá þetta húſed, ſem ad nefndt er epter mínu nafne, fyrer eina mordingia grýfiu? ſiá þú! eg ſe þad vel, ſeger Drottenn.

12. Ganged burt til míns ſtadar í Silo, þar ſem mitt nafn hefir ádur búed, og ſkoded hvad eg hefe þar gert, fyrer illſku ſaker míns fólks Iſrael.

13. Enn epter þvi, ad þer fremed aller ſoddann knytte, ſeger Drottinn, og eg læt alltíd predika fyrer ydur, og þer vilid eigi heyra. Eg kalla til ydar, og þer viled eigi andſvara.

14. Þá vil eg gera vid þad húſed, ſem nefndt er epter mínu nafne, á hvert þer treyſted, og vid þann ſtadenn ſem eg gaf ydar for-

fedrum, eins líka so sem eg gerde vid Silo.

15. Og eg vill burtkasta ydur frá mínu auglite, líka sem ad eg hefe burtkastad øllum ydrum brædrum, þvi gervøllu sæde Ephraims.

16. Og þú skallt eigi bidia fyrer þessu fólke, og þú skallt eigi neina kveinstafe, ne bænastad í framme hafa fyrer þuí, og eigi tiá þeirra mál fyrer mer, þviad eg vil eigi bænheyra þig.

17. Þvi ser þú eigi, hvad þeir gera í þeim stødunum Juda, og á strætunum til Jerusalem?

18. Børninn þau lesa videnn tilsamans, þá uppkveikia fedurner elldenn, og konurnar hnoda deiged, so ad þær bake braudkøkuna þeirre himennsinns Melecheth, og gefa þeim annarlegum Gudunum dryckiar offrid, so ad þeir gere mer strid.

19. Enn þeir skulu eigi mer þar med strída, seger Drottinn: helldur siálfum ser, og þeir hliota til skammar ad verda.

20. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn: siá þú! mín reide og mín grimd er úthellt yfer þennann stad, bæde yfer menn og fenad, yfer tren í skogenum, og yfer ávøxtinn landsins, og hún skal brenna, og engenn skal kunna út ad sløcka.

21. So seger Drottenn Zebaoth: Gud Israels. Legged ydart brenneoffur og ønnur offur tilsamans, og etid kiøtid.

22. Þviad eg hefe hverke sagt ne boded ydrum forfedrum af brenneoffre edur ødrum fornfæringum, á þeim deige em eg útleidde þá af Egyptalande.

23. Enn þetta baud eg þeim og sagde: hlyded mínu ordi, so vil eg vera ydar Gud, og þer skulud vera mitt folk, og ganged á øllum þeim vegum, sem eg byd ydur, so ad ydur skule vegna vel.

24. Enn þeir villdu eigi heyra, ne sín eyru þar ad hneigia, helldur gengu þeir epter sínu eiginn ráde, og epter þeirra vondsligum hiartans þótta, og gengu so á bak aptur, enn ei áframm.

25. Já! frá þeim deige, þá eg útleidde fedur ydra af Egyptalande, og allt til þessa dags, þá hefi eg alltíd sendt til ydar, alla mína þiénustumenn, prophetana.

26. Enn þeir vilia eigi mer heyra, ne sín eyru tilhneigia, helldur eru þeir hardsvírader, og gera verra enn þad þeirra fedur gerdu.

27. Og þá ed þú seger þeim enn allt þetta, þá heyra þeir þig þó eigi: kallar þú til þeirra, þá svara þeir þer þó eigi.

28. Þar fyrer seg þú til þeirra: þetta er þad fólk sem eigi vill heyra Drottne Gude sínum, ne bæta sig. Truenn er í burt horfenn, og útslitenn af þeirra munne.

29. Raka þú þitt hár í burt, og kasta þvi frá þer, og kveina sárgrætelegana á þeim hædunum. Þviad Drottenn hefir þessu slekte, yfer hveru hann er reidur, burt kastad og útskufad.

30. Þviad børnenn Juda gera illa fyrer mínum augum, seger Drottinn. Þeir setia sína svívirding inn í þad húsid, sem ad nefndt er epter mínu nafne, til ad saurga þad.

31. Og byggia alltare Thopheth í Ben Hinnom dal, so ad þeir uppbrenne sína syne og dætur, hvad eg hefe alldreige boded, og eigi hefir mer þad til hugar komed.

32. Þar fyrer, siá þú! sá tíme kemur seger Drotteun: ad þad skal eigi meir kallast Thopheth, og Ben

Hinnom dalur, helldur Morðdalur, og þar skal grafed vera í Thopheth, af þvi þar mun eigi fást annarstadar rúm til.

33. Og líkamar fólks þessa skulu verda fuglum himensins og dyrum á jørdunne ad átu, og engenn skal burtstyggia þau þadann. Og eg vil í stødunum Juda, og á strætunum til Jerusalem, í burttaka þad gledinnar og fognadar kall, og þá raustena brúdgumans og brúdarennar, þviad landed skal í eyde vera.

34. A þeim sama tíma, seger Drottinn: munu menn útkasta beinum konunganna í Juda, beinum þeira høfdingianna, beinum þeirra prestanna, beinum þeirra prophetanna, beinum þeirra borgarmannanna til Jerusalem, burt úr þeirra grøfum.

35. Og þeir munu útdreifa þeim under sólena, tunglid og allann himensins her, hvern þeir elskudu, hverum þeir og þiónudu, og hønum epterfylgdu, vitiudu og tilbádu. Eigi skulu þau upplesast aptur og grafenn verda, helldur skulu þau verda ad saurindum á jørdunne.

36. Og aller þeir sem epter munu vera af þessu illu fólke, í hverum hellst stad sem þeir eru, þangad sem eg hefe þá í burtreked, þá skulu þeir helldur vilia vera dauder enn lifande, seger Drottinn Zebaoth.

## 8. Capitule.

1. Þar fyrer seg þú til þeirra, so seger Drottinn: hvar er sá nockur sem ad fellur, ad hann villde eigi giarnann upp aptur standa? hvar er sá nockur sem ad villt fer, ad hann vile eigi giarnann komast á þann retta veigenn aptur?

2. Samt vill þó þetta folk í Jerusalem ætíd og alla tíma villt fara. Þeir hallda so fast á þeirre falsklegre Guds þiónustu, ad þeir vilia eigi láta snúa ser þar frá.

3. Eg se og heyre, ad þeir læra eigi neitt hvad rett er; þar er sá engenn, sem ad hønum misslíke sín illska, og sege: hvad er þad eg gere? aller þá hlaupa þeir sitt hlaup, so sem grimmur víghestur í bardaga.

4. Storkfuglenn under himmenum veit sinn tíma, ein turtilldúfa, tranann og svalann formerkia þeirra tíma, nær ed þær skulu apturkoma. Enn mitt folk þad vill eigi vitá rettindenn Drottins.

5. Hvernenn meiged þer þá segia: ver vitum hvad rett er, og ver høfum þá heilugu ritning fyrer oss? Þad eru þó eigi utann lygar, hvad þeir hiner skriftklóku þeir setia.

6. Þar fyrer hlióta slíkir lærendur til skammar, skelfder, og fangader ad verda, þvi hvad kunna þeir godt ad kenna, á medann þeir burt snara orde Drottins?

7. Þar fyrer vil eg gefa annarlegum þeirra húsfreyur, og þeirra akurlønd þeim, sem þá munu útreka, þviad þeir eru allersaman ágiarner, bæde smáer og storer, bæde prestarner og prophetarner kenna falska Guds þiónustu.

8. Og hughreysta mitt folk í þeirra gæfuleyse, ad þeir skulu eigi hyrda mikid um þad, og segia: fridur, fridur, enn þar er þó ei fridur.

9. Þar fyrer skulu þeir til skammar verda, ad þeir fremia sodann svívirdingar, þó ad þeir vile óskammader vera, og vilia eigi siálfer sín skammast. Þar fyrer hlióta þeir ad falla í eina hrúgu, og nær ed eg fer þeirra ad vitia,

þá skulu þeir falla, seger Drottinn.

10. Eg vil afleſa þá allaſamann, seger Drottinn: ſo ad þar skulu engenn vínber á víntrenu, og engar fíkiur á fíkiutrenu epter vera, já þau laufblødenn ſkulu og einnenn af falla, og hvad ſem þad er, ad eg hefi gefed þeim, þá ſkal þad frá þeim takaſt. Hvar eigum ver þá ad búa?

11. Samannſafned ydur þá, og látum oſs innfara í þær ſterku borgernar, og bída þar epter hiálprædenu, þviad Drottinn Gud vor mun hiálpa oſs med beiſkum dryck, af þvi ad ver ſyndguduſtum ſo á móte Drottne

12. Já! treyſted þar uppá, ad þad ſkule enga neid hafa, ſem þar er þó eigi neitt godt fyrer hondum, og þad þer ſkulud heilbrigder verda, ſem þar er þó eigi utann ſkadſeme fyrer hondum.

13. Menn heyra, ad þeirra heſtar fnyſa nú þegar í Dan, og ad þeirra vígheſtar hneggia, ſo þad allt landed ſkelfur þar vid. Þeir koma þar framm, og munu uppeta landed, med øllu þvi ed þar er inne, borgena áſamt med øllum þeim, er þar búa inne.

14. Þviad ſiá þú! eg vil ſenda høggorma og Baſiliſcos á medal ydar, ſem eigi eru ſærder, þeir ſkulu ſtínga ydur, ſeger Drottenn.

15. Þá mun eg endurlífga mig af minne mædu og hiartans ſorg.

16. Siá þú! dotturenn míns folks mun kalla úr fiarlægu lande, vill þá Drottinn eigi framar vera Gud í Zion? eda ſkal hún nú engann konung hafa lengur? já! hvar fyrer hafa þeir gert mig ſo reidann fyrer ſín líkneſke og þá annarlegu óþyta Guds þiónuſtu.

17. Hauſted er umlided, og ſumared er í burtu, og oſs kemur engenn hiálp.

18. Mig angrar þad af hiarta, ad mitt fólk er ſo fordiarfad, eg grem mig þeſs, og eg ber mig illa.

19. Hvert eru þá engenn ſmyrſl í Gilead? eda er þar engenn grædare til? hvar fyrer er eigi dotturenn míns folks þá læknud?

## 9. Capitule.

1. Ach! eg villde eg hefde nog vatn í mínu høfde, og þad mín augu være ein tára uppſpretta, ſo ad eg mætte gráta bæde nætur og daga, þá íhelſlegnu á medal míns fólks.

2. Ach! eg villda ad eg hefde eitt herberge á eydemørkinne, þá villda eg yfergefa mitt fólk, og fara í burt frá þvi, þviad þeir eru eigi utann hórdoms menn, og einn þriótſ ſamſegur ſlockur.

3. Þeir ſkiota eigi utann lygunum med ſínum túngum, og engum ſannleika, og þeir veita yfergang landenu, og ganga frá einu ranglætenu til annars, og ſkeyta mer eigi, ſeger Drottinn.

4. Serhver vare ſig vid ſínum vin, og trúe eigi helldur ſínum brodur, þviad einn bródurenn nidurþricker hinn annann, og einn vinurenn ſvíkur hinn annann.

5. Einn vinurenn hann prettar hinn annann, og talar eigi eitt ſatt ord. Þeir eru koſtgæfner um þad, hvernenn ad þeir fáe ſviked hver annann, og þad gerer þeim mein, ad þeir kunna eigi ad gera þad enn verr.

6. Þad er alla vega eigi utann pretter á medal þeirra, og fyrer ſvikrædanna ſaker þá vilia þeir eigi þeckia mig, ſeger Drottinn.

7. Þar fyrer ſeger Drottinn Zebaoth ſo: ſiá þú! eg vil ſmellta þá,

og reyna þá, því hvad skal eg ann-
ad til gera, fyrst ad mitt folk þad
pryder sig so?
8. Þeirra falsklegar túngur eru
baudleg skeyte: medur sínum mun-
ne tala þeir vinsamlega til síns
náunga, enn í hiartanu umsitia
þeir þann hinn same.
9. Skyllda eg nú eigi vitia þessa
á þeim, seger Drottinn, skyllde og
eigi sála mín hefna sín á soddann
fólke, sem þetta er?
10. Eg hlyt ad gráta og kveina
uppá fiøllunum, og ad klaga mig
í hiá fiárhúsunum í eydemørk-
enne, þviad þau eru so algerlega
í eyde løgd, ad þar umgengur
engenn, og eigi heyra menn þar
nein hliód fenadarens; þar eru bæ-
de fuglarner himensins, og fenad-
urenn, alltsamann burtu.
11. Og eg vil gera Jerusalem
ad einnre griótbrúgu, og ad einu
drekabæle: og eg vil í eydeleggia
borgernar Juda, so ad engenn skal
búa þarinne.
12. Hver hann være nú vitur,
og lete ser þad til hiarta ganga,
og kunngerde þad, hvad ed munnur
Drottins seger til hans: hvar fyrer
ad landed verdur fordiarfad og
eydelagt, líka sem ønnur óbyggd,
þar ed engenn umgengur.
13. Og Drottinn sagde: þar
fyrer, ad þeir forláta mitt løg-
mál, sem eg gaf þeim, og hlyda ei
mínu mále, og lifa ei þar epter.
14. Helldur epterfylga sínum
hiartans hugþotta, og Baalim, so
sem þeirra fedur kenndu þeim.
15. Þar fyrer seger Drottinn
Zebaoth, Gud Israels, so: siá þú!
eg vil fæda folk þetta med beiskre
grasajurt, og gefa því gall ad
drecka.
16. Eg vil úttvístra þeim á med-
al heidingianna, hvera þad hverke
þeir ne þeirra fedur þeckia, og eg
vil senda sverded á bak til vid þá,
þangad til ad þeir eru foreyddar.
17. So seger Drottinn Zeba-
oth: útvelged og tilseted harma-
konur, ad þær kome, og sended
epter þeim sem þad vel kunna, ad
þær kome og harme oss skyndelega.
18. So ad vor augu meige flió-
ta í tárum, og vorar augnabryr
renna í vatne.
19. So ad menn heyre eitt sár-
grætelegt hróp í Zion, med þessum
hætte, auví! hvernenn erum ver
so med øllu í eydelagder, og til
skammar vordner? ver hliótum
landed ad ryma, þviad þeir hafa
nidurbroted vora búnade.
20. So heyred nú þer kvinnur!
orded Drottens, og láted ydur þad
máled hans munns í eyrum loda,
kenned ydrum dætrum ad gráta,
og hver kenne annare harm ad be-
ra, sem er á þennann hátt.
21. Daudenn er infallenn um
vor vindaugu, og komenn í vor
herberge, til ad drepa børnenn á
gøtunne, og ungmennenn á stræt-
unum.
22. So seger Drottinn: seg þú!
þad mannanna líkamer skulu lig-
gia so sem adrar tadhrúgur á tún-
vøllum, og so sem byndene epter
sláttu mannenum, þau engenn
upptekur.
23. So seger Drottinn: einn, sá
vís er, hróse ser eigi af sínum vís-
dóme: einn sflugur hrose ser eigi
af sínu afle: einn ríkur hrose ser
eigi af sínum ríkdóme.
24. Helldur hver ed ser vill hró-
sa, hann hrose ser af því, ad hann
vite og þecke mig, þad eg se Drott-
inn, sá sem ad gerer miskunseme-
na, dómenn, og rettvísena, á jør-
du. Þviad soddan þocknast mer,
seger Drottinn.

25. Siá þú! tímenn kemur, segir Drottinn, þad eg mune alla heimsækia, þann umskorna med þeim óumskorna.

26. Sem er, Egyptska, Juda, Edom, Ammons børn, Moab og alla þá sem búa í landsálfum eydemerkurennar. Þviad aller heidingiar þeir hafa óumskorna yfer húd, enn allt Jsraels hús hefir óumskorenn hiørtu.

## 10. Capitule.

1. Heyred þer hvad ed Drottinn talar til ydar, þer af húse Jsraels!

2. So seger Drottinn: Þer skulud eigi læra sidvenitur heidenna manna, og þer skulud eigi hrædder vera fyrer himenteiknunum, so sem þad heidingiarner hræddar eru.

3. Þviad god heidenna manna eru allt ecke. Þeir høgga eitt tre í skogenum, og smidurenn smídar þad med øxenne,

4. Og prýder þad med silfre og gulle, og fester þad med nøglum og hømrum, ad þad skule eigi um koll detta.

5. Þau eru ei annad enn málader trestockar, þau kunna ei ad tala, so hliota þau einnenn borenn ad vera, þviad þau kunnna eigi ad ganga. Þar fyrer skulud þer eigi hræddar vera fyrer þeim, þviad þau kunna hverke ad hiálpa ne skada ad gera.

6. Enn þer, Drottinn! er engenn líkur, þú ert stor, og þitt nafn er mikelsháttar, og þú kannt þad ad audsynia med gerninge.

7. Hver skyllde eigi óttast þig? þú kongurenn heidenna þióda! þer er skyllbugt ad hlyda, þviad þar er engenn á medal allra vísdoms manna þeirra heidnu, og í øllum kongarikum, þinn líke.

8 Allersaman þá eru þeir heimsker og fávíser. Þviad trestockurenn hlytur ad sønnu ad vera eitt fáseingeleg Guds þiónusta.

9. Silfurpløtur flytiast hingad yfer um siófarhafed, gulled út af Uphas, tilbúed af meistaranum og gullsmidnum: í gult silke og purpura klæda þeir þá, og þad er alltsaman vísra manna fundingar.

10. Enn Drottinn er einn sannur Gud, einn lifande Gud, einn eylífur konungur. Fyrer hans reide skelfur jørdenn, og þeir hiner heidnu kunna eigi ad þola hans ógnaner.

11. Þvi seg nú so til þeirra: þeir guder sem eigi hafa gert himen og jørd, þeir hliota afmáder ad verda burt af jørdunne, og under himnenum.

12. Enn hann hefir gert jørdena med sínum krafte, og tilbúed jardarkringluna med sínum vísdome, og himenenn útbreidt med sínum skilninge.

13. Nær ed hann slær reidarþrumurnar, þá er vatnsins nogleg gnægd under himnenum, og dregur upp þokuna í frá enda jardarennar: hann gerer þær elldingarnar í regnenu, og lætur vindenn koma úr leynelegum stødum.

14. Aller menn eru heimsker med sínne kunnáttu, og hver gullsmidur verdur skammarlegur medur sínar líkneskiur, þviad þeirra skúrgod eru svikræde, og hafa eigi neitt líf.

15. Þad er alldeilis eigi par, og sviksamlegt verk, þeir skulu fyrerfarast nær ed þeirra verdur vitiad.

16. Enn hann er eigi so, sá sem ad er festedur Jacobs, helldur er hann sá hinn same sem skapad hefir alla hlute, og Jsrael er hans

erfdahlutur; hann heiter Drott-
inn Zebaoth.
17. Tak þína höndla burt úr
landenu, þú sem byr í þeirre ör-
uggre (borgenne.)
18. Því so seger Drottinn: siá
þú! eg vil í burtdreifa innbyggi-
urunum landsins í þessu sinne, og
eg vil þreingia ad þeim, so ad þeir
skulu kenna þess.
19. Ah, mín eymd og hiartans
sorg! enn eg þeinkte, þad sama er
mín plága, eg hlyt hana ad líða.
20. Mín tialldbúd er niðurbrot-
enn, og öll mín stög eru sundur
slitenn. Mín börn eru í burtu, og
eru ei meir fyrer hende: engenn
vidretter mína tialldbúd aptur, og
engenn slær mínu landtiallde upp
aptur.
21. Þviad hyrdararner eru
ordner ad vitleysingium, og hyr-
da ei um Drottinn, þar fyrer kun-
na þeir og einnenn eigi neitt rette-
legt ad kenna, helldur eru allar
hiarder ísundurdreyfdar.
22. Siá þú! þar kemur eitt her-
óp framm, og ein mikel skelfing úr
nordurlandenu, so ad þeir stadern-
er í Juda skulu í eyde leggiast, og
ad drekabælum verda.
23. Eg veit, Drottinn! ad
mannsins gerninger standa eigi í
hans vallde, og þad stendur eigi
í neins manns magt, hvernenn
þad hann skule ganga, edur grei-
da sína göngu.
24. Tyfta þú mig, Drottinn!
þó med máta, og eigi í bræde þin-
ne, so ad þú uppræter mig eigi!
25. Helldur úthell þú þinne rei-
de yfer heidingiana, þá sem eigi
þeckia þig, og yfer þær kynkvíslern-
ar sem eigi ákalla þitt nafn. Því-
ad þeir hafa Jacob upp éted, og
uppsvelgt; þeir hafa útrymt hann,
og hans bústade í eydelegt.

# 11. Capitule.

1. Þetta er þad ord, sem skede
af Drottne til Jeremia, og sagde:
2. Heyred ordenn þessa sáttmál-
ans! so ad þer seged þau þeim í
Juda, og þeim borgar mönnum til
Jerusalem.
3. Og seg til þeirra: so seger
Drottinn Israels Gud. Bölvadur
se sá, sem eigi hlyder ordum þessa
sáttmálans.
4. Huern eg baud ydrum fedrum á
þeim deige, þá eg útleidde þá af
Egyptalande, af þeim járnofnen-
um, og sagde: hlyded minne rau-
stu, og gered so sem eg hefe boded
ydur, þá skulud þer vera mitt folk,
og eg vil ydar Gud vera.
5. So ad eg mege hallda þann
eid, sem eg hefe svared ydrum fedr-
um, ad gefa þeim eitt land, þar
ed miolk og húnáng inne flytur.
Lika sem ad þad stendur enn í dag.
Eg svarade og sagde: Drottinn!
já! þad se eg so.
6. Og Drottinn sagde til mín:
predika þú öll þesse ord í stödun-
um Juda, og á strætunum til Je-
rusalem, og seg þú: heyred ord-
enn þessa sáttmálans, og gered þar
epter.
7. Þviad eg vitnade fyrer ydrum
forfedrum í frá þeim deige, ed eg
útleidde þá af Egyptalande, allt
til þessa dags, og vitnade snemma,
og sagde: hlyded minne raustu.
8. Enn þeir hlyddu eigi, og
þeir hneygdu ei helldur sín eyru,
helldur geck hver einn epter síns
vonda hiartans þótta. Þar fyrer
vil eg og einnenn láta ganga yfer
þá öll ordenn þessa sáttmálans,
sem eg hefe boded ad gera, og þeir
hafa þó eigi þar epter gert.
9. Og Drottinn sagde til mín:
eg veit vel hvernenn þad þeir í Ju-

da, og þeir í Jerusalem samhinda med ser.

10. Þeir snúa ser burt til Þeirra fyrrdanna sinna fyrre forfedra, Þeir sem eigi villdu helldur hlyda mínum ordum, og epterfylgdu einnenn annarlegum Gudum, og Þiónudu Þeim, líka so hefir húsed Jsraels, og Þad húsed Juda (alla tíma) broted minn sáttmála, Þann eg gerde vid fedur Þeirra.

11. Þar fyrer siá Þú, seger Drottinn: eg vil láta yfer Þá ganga eina ógæfu, hvera Þeir skulu eigi umflúed geta. Og nær ed Þeir kalla til mín, Þá vil eg eigi heyra Þá.

12. Af Þvi Þá láttu stadena í Juda, og borgarmennena í Jerusalem ganga burtu, og kalla til Þeirra Gudanna fyrer hverum Þeir veyfudu reykelsenu, enn Þeir munu ei hiálpa Þeim í Þeirra ánaud.

13. Þviad Þú Juda hefir so marga Gude sem Þú hefir stadena, og so mörg stræte sem Þar eru í Jerusalem, so mörg skammarleg alltare hafed Þer uppreist, til ad gera reykelse fyrer Baal.

14. Af Þvi bid Þú eigi fyrer Þessu fólke, og ger enga grátbeidne edur bænastad fyrer Þeim, Þviad eg vil eigi heyra Þá, nær ed Þeir kalla til mín í sinne ánaud.

15. Hvad hafa míner viner ad gera í mínu húse? Þeir fremia allann stráksskap, og meina Þad hid heilaga kiøted skule taka Þad í burt frá Þeim, og nær ed Þeir gera illa, Þá gledia Þeir sig Þar út af.

16. Drottinn hann kallar Þig eitt grænt, fagurt, ávaxtarsamlegt vidsmiørs vidartre, enn nú hefir hann uppkveikt einn elld um Þad, med miklu manndráps hrópe, so ad Þess greiner skulu fordiarfast.

17. Þviad Drottinn Zebaoth, sem Þig gródursette, hann hefir hótad Þer einnre ógæfu, fyrer illsku saker hússens Jsrael, og hússens Juda sem Þær fremia, Þad Þær reita mig tilreide, medur Þvi reykelse sem Þeir gere fyrer Baal.

18. Drottinn opennberade mer Þetta, so ad eg veit Þad, og undervísade mer Þeirra ásetning, sem er,

19. Ad Þeir villdu leida mig til slátrunar eckfins sem annad meinlaust lamb. Þviad eg vissa Þad eigi, ad Þeir høfdu rádslagad á móte mer, og sagt: látum oss fordiarfa Þad tred med sínum ávexte, og uppræta hann burt úr landenu Þeirra lifendu, so ad hans nafn skule alldrei meir hugleidt verda.

20. Enn Þú Drottinn Zebaoth! Þú rettvíse dómare, Þú sem prófar nyrunn og hiørtunn! látu mig siá Þína hefnd á Þeim, Þviad eg hefe á hendur faled Þer mitt málefne.

21. Þar fyrer seger Drottinn so: móte Þeim mønnunum í Anathoth, sem stunda epter Þínu life, og segiat svá Þú oss eigi neins í nafne Drottins, utann Þú viler deya fyrer vorar hendur.

22. Þar fyrer seger Drottinn Zebaoth so: siá Þú! eg vil heimsækia Þá: Þeirra æskumenn skulu íhel slegner verda med sverde, og syner Þeirra og dætur skulu deya af hungre.

23. So ad ecke skal epter vera af Þeim. Þviad eg vil láta ógæfu ganga yfer mennena í Anathoth, á Þvi árenu, nær ed Þeirra mun vitiad verda.

## 12. Capitule.

1. Drottinn! Þó ad eg villde Þreyta løg vid Þig, Þá behelldur Þú Þó rettennm, enn eg hlyt Þó samt

af laga rettenum ad tala vid Þig. Hvar fyrer vegnar Þeim ógudlegu so vel, og Þeir forsmúnararner hafa allskonar nægd?

2. Þú gródur setur Þá, so ad Þeir fá rætur, og vaxa upp, og bera ávøxt: Þú lætur Þá hrósa miked út af Þer, og agar Þá eigi.

3. Enn mig, Drottinn! Þú Þeckter Þú, og ser til mín, og profar mitt hiarta fyrer Þer, enn Þá lætur Þú siálfráda ganga sem saude, so ad Þeir skulu slátrast, og sparar Þá, ad Þeir skulu deydast.

4. Hversu lenge skal Þó landed standa so aumlega, og grased á vøllunum í burt Þorna so alla vega, fyrer jnnbyggiaranna illsku saker, so ad bæde fe og fuglar eru Þar alldrei? Þviad Þeir segia: já! hann veit miked af Þvi, hvernenn oss mune ganga.

5. Fyrst ad Þeir mæda Þig sem á fæte ganga, hvornenn vill Þer Þá veita, nær ed Þú skallt med Þeim hlaupa sem rídande eru?

6. Og Þar sem Þú leitar epter óhræddur ad vera í Þvi landenu sem fridurenn er, hvernenn mun Þad Þá vilia Þer vegna, hiá Þeirre drambsømu Jordan?

7. Þviad Þíner brædur, og Þíns fødurs hús forsmá Þig einnenn, og hrópa epter Þer med háreyste, Þar fyrer set Þú eigi Þitt traust til Þeirra, Þó ad Þeir tali enn vinsamlega vid Þig.

8. Þar fyrer hlaut eg ad yfergefa mitt heimele, og fordast mína arfleifd, og gefa mína elskulegu sál í óvina hendur. Mín arfleifd er mer ordenn so sem eitt Leon í skoge, og greniar á móte mer, Þar fyrer em eg ordenn henne reidur.

9. Mín arfleifd er líka sem einn fleckottur fugl, kringum hvern Þad fuglarner safnast. Upp! og safned ad ydur øllum dyrum merkurinnar, komed og uppsvelged.

10. Fielde hiardar geymslumanna hefir fordiarfad minn víngard, og nidurtrodet minn akur.

11. Þeir hafa gert minn fagra akur ad eydemørku: Þeir hafa lagt hann í eyde. Eg se allareidu hversu aumlegana Þad hann er í eyde lagdur.

12. Já! gervallt landed er í eyde, enn Þar er engenn, sem ser lætur Þad til hiarta ganga. Þviad Þeir foreydendurner fara her framm, yferum allar hæder eydemerkurennar, og Þad uppsvelgiianda sverded Drottins í frá ødrum landsendanum allt til annars, og eigi neitt holld mun frid hafa.

13. Þeir nidursá hveitenu, enn Þistla munu Þeir hafa Þar erfide fyrer, enn Þeim kemur Þad eigi ad gagne, af sínne innkomu munu Þeir og eigi glader verda, fyrer grimmdar reidenne Drottins.

14. So seger Drottinn imóte øllum mínum nágrønnum sem grípa Þá arfleifd, sem eg útskipte á medal míns folks Israels. Siá Þú! eg vil í burtslita Þá af Þeirra lande, og í burtrydia húsenu Juda mitt á medal Þeirra.

15. Og nær ed eg hefe Þá í burt slited, Þá vil eg aptur vera Þeim miskunsamur, og eg vil flytia hvern til sínnar arfleifdar, og inn í sitt land aptur.

16. Og Þad skal ske, ef ad Þeir læra af mínu fólke, ad sveria vid mitt nafn (so sannarlega sem Drottinn lifer) líka sem ad Þeir kenndu (fyrr meir) mínu fólke ad svera vid Baal, Þá skulu Þeir uppbyggder verda á medal míns folks.

17. Enn ef Þeir vilia eigi heyra, Þá vil eg upprydia og fyrerkoma sliku fólke, seger Drottinn.

## 13. Capitule.

1. So seger Drottinn til mín: gack burt og kaup þer einn lerepts linda, og umgyrdtu þínar lendar þar med, og ger hann eigi votann.

2. Og eg keypta einn linda epter skipan Drottins, og batt þann um mínar lendar.

3. Þá skede ord Drottins í annad sinn til mín, og sagde:

4. Tak þann lindann sem þú keyptter, og þú bátt um þínar lendar, og bú þig, og gack í burt til Phrath, og fel hann þar í einnre biargskoru.

5. Eg geck þangad, og falde hann hiá Phrath, so sem þad Drottinn hafde mer boded.

6. Enn epter langann tíma sagde Drottinn til mín: bú þig, og far burt til Phrath, og sæk þú þann linda aptur sem eg baud þer ad fela þar.

7. Eg gek burt til Phrath, og grôf hann upp, og tók lindann úr þeim stad, sem eg hafde faled hann, og siá þú! ad sá lindenn var skemdur, so hann var til einkis framar meir.

8. Þá skede ord Drottins til mín, og sagde:

9. So seger Drottinn: eins líka þá vil eg og skemma þá hina miklu drambsemen Juda og Jerusalem.

10. Þá illu þiód, sem eigi vill heyra mín ord, helldur ganga þeir epter sínum hiartans hugþotta, og eptersylgia aññarlegum Gudum, ad þióna þeim og tilbidia þá: þeir skulu eins verda, sem sá lindenn er, hver ad eigi duger framar til neins.

11. Þviad líka so sem þad madurenn bindur lindann um sínar lendar, eins líka þá hefi eg, seger Drottinn, umgyrdt allt Israels hús, og þad gervallt húsed Juda kringum mig, so ad þeir skylldu vera mitt folk, til eins nafns, lofs, og dyrdar. Enn þeir villdu eigi heyra.

12. Sô seg þeim nú þesse ord, so seger Drottinn Gud Israels: aller leiglar skulu fyllast med vín, þá munu þeir segia til þín: hver er sá, ad hann vite eigi þad, ad aller leiglarner skulu med víne fyllter vera.

13. So seg þú til þeirra, so seger Drottinn: siá þú! eg vil fylla þá allasamann sem byggia í þessu lande, kongana sem sitia uppá Davids stóle, prestana og prophetana, og alla innbyggiarana í Jerusalem, so ad þeir skulu drukner verda.

14. Og eg vil sundur dreifa einum sem ødrum, fedrunum ásamt med børnunum, seger Drottinn, og eg vil hverke spara edur vægia, ne miskunsamur vera yfer þeirra fordiørfun.

15. So heyred nú: og hygged ad þvi, og trássed eigi, þvi Drottinn hefir talad þad.

16. Gefed Drottne Gude ydrum dyrdena, fyrr enn þad myrkt verdi, og ádur enn þad ydrer fætur reki sig á þau myrku fiøllenn, ad þer vænted liôssens, þar hann mun þó med øllu gera þad myrkt og dimmt.

17. Enn viled þer eigi þetta heyra, þá hlytur þó samt mín sála heimugleg̃a ad gráta yfer slíkre drambseme. Mín augu þau hlióta í tárum ad fliota, þad hiørdenn Drottins verdur herteken.

18. Seg þá kongenum og drottningunne: seted ydur, þviad koronann vegsemdarennar er bottenn af ydru høfde.

19. Staderner mót sudrenu erú

aptur læster, og þar er sá engenn sem uppluke þeim, gervallt Juda er alldungis í burt slútt.

20. Upplyfted ydar augu, og siáed, hvernenn ad þeir koma hing ad af nordrenu. Hvar er nú sú hiørdenn sem þer var á hende folgenn, þín herlega hiørd?

21. Hvad villtu til segia, nær ed hann vill so heimsækia þig? Þviad þú hefir vaned þá so á móte þer, þad þeir villa vera høfdingiar og høfuds menn. Hvad gillder þad, ad angist mun yfer þig koma, so sem einnrar jodsiukrar konu.

22. Og nær ed þú villt so segia í þínu hiarta: hvar fyrer þá mun mig henda slíkt? fyrer fiølda saker þinna misgerda þá er falldur þíns klædnadar upp flettur, og þíner fotlegger nakter gerder (med vallde.)

23. Kann nockud blámadurenn ad skipta sinn skinnslit, eda einn Pardus sína flecke? so kunned þer og so godt ad gera, af því þer érud vaner til hins vonda.

24. Þar fyrer vil eg sundurdreifa þeim, so sem gras stráum, þau ed fyrer vinde fiúka af eydemørkenne.

25. Þad skulu þín laun vera, og þín hlutdeild, sem eg hefe þer tilmællt, seger Drottinn. Af því þú hefir forgleymt mer, og treyster uppá lygarnar.

26. Þar fyrer vil eg og láta einnenn þínum klædsaumum hátt upp fletta á móte þer, so ad þín blygdan meige vel siást.

27. Þviad eg hefe sed þína hórdoma, þitt lauslæte, þínar ósvífnar hóraner, já! þínar svívirdingar, bæde uppá hædum og akurlendunum. Vei þer Jerusalem! nær villtu þó nockurn tíma verda hreinn?

## 14. Capitule.

1. Þetta er þad orded sem Drottinn sagde til Jeremia, út af hallæris tídenne.

2. Juda hún liggur herfelega, hennar borgarhlid standa aumlega, þad gengur sárgrætelega til í landenu.

3. Og þar er einn mikell þurkur í Jerusalem: hiner stéru senda þá hina smáu epter vatnenu, enn nær ed þeir koma til brunnsins, þá finna þeir eigi neitt vatn, og þeir bera sín ker tóm aptur. Þeir ganga sorgfuller og harmþrungner, og vefia um sín høfud.

4. Þar fyrer, ad jørdenn sundur springur, af því þad rigner eigi á jørdena, akurkarlarner ganga sorgbitner og vefia um sín høfud.

5. Þviad einnenn hindurnar, sem kelfa á skogunum, yfergefa kálfana, af því þar vex eigi neitt gras.

6. Villudyrenn standa á hædunum, og snapa epter vedrenu, so sem drekarner og gefast upp, af því ad þar vaxa eigi neinar jurter.

7. Ah Drottinn! vorer misgerningar hafa þad vel forþenad, enn þú hiálpa þó fyrer þíns nafns saker! Þviad vor óhlydne er mikel, med hverre ver høfum syndgast á móte þer.

8. Þú ert Israels huggunartraust; þeirra naudhiálpare; því hegdar þú þer so, líka sem ad værer þú einn gestur í landenu, og so sem einn framande madur, hver ed þar eigi dvelst nema um næturfaker?

9. Hvar fyrer hegdar þú þer so sem einn øslugur madur huglaus, og sem einn rise sem eigi kann hiálp ad veita? Þú Drottinn ert þó á med-

al vor, og ver heitum epter þínu nafne, yfergef þu oss eigi!

10. So seger Drottinn um þetta fólk: Þeir hlaupa giarnann hingad og þangad, og eru eigi giarnann heima, þar fyrer þá þocknast þeir eigi Drottne, helldur minnest hann nu á þeirra misgerning, og vill heim vitia þeirra synda.

11. Og Drottinn sagde til mín: Þú skallt eigi beidast líknar fyrer þetta fólk.

12. Þvi þó ad þeir enn føstudu, þá vil eg þó eigi helldur heyra þeirra bæn, og þó þeir bere enn framm brenneførner og matoffur, þá þocknast þeir þó mer eigi. Helldur vil eg burtslíta þá medur sverde, hungre og drepsott.

13. Þá sagde eg: ah! Drottinn Drottinn! siá þú! prophetarner segia þeim, engenn sverd munud þer siá, og eigi neitt hallære hafa hiá ydur, helldur mun eg gefa ydur godann frid í þessum stad.

14. Og Drottinn sagde til mín: Þeir prophetar spá falsklega í mínu nafne, eg hefe eigi útsendt þá, og eigi bodet þeim þad, og eigi talad vid þá, þeir predika fyrer ydur falsklegar sióner, útþydingar, afgudadyrkaner, og sín hiartans svikræde.

15. Þar fyrer seger Drottinn so: um þá prophetana sem spá í mínu nafne, þá sem eg hefe þó eigi útsendt, og þeir predika samt, þar skule eigi neitt sverd, ne nein hallæris tíd koma í þetta land. Sikker prophetar skulu deya fyrer sverde og hungre.

16. Og þad fólk sem þeir spá þessu, skulu liggia af sverde og hungre, her og hvar á strætunum í Jerusalem, so ad engenn mun grefstra þá, líka einnenn þeirra kvinnur, syner og dætur, og þeirra illsku vil eg so utausa yfer þá.

17. Og þú skallt segia þeim þetta ord: mín augu flióta í tárum dag og nótt, og linna eigi, þviad sú jungfrúenn, dotturenn míns fólks er brædelega plágud, og aumlega sleigenn.

18. Gange eg út á vøllunа, siá þú! so liggia þar þeir ed íhelslegner eru med sverdum: kome eg inn í stadenn, þá liggia þar þeir sem máttlauser ere af húngre. Þviad þeir prophetarner, og einnenn líka prestarnrr hlióta burt ad fara í eitt annad land, hvert ed þeir þekkia eigi.

19. Hvert hefir þú þá burtkastad Juda? eda hefir þín sála vidbiod til Zion? hvar fyrer hefir þú þá sleiged oss so, þad engenn kann ad lækna oss? ver vonudum, ad þad skyllde fridur vera, þá kom þar ecke godt: ver vonudum, þad ver skylldum heilbrigder verda, enn siá þú! ad þá er þar enn meire skade.

20. Drottinn! ver medkennum vort ógudlegt athæfe, og misgerder vorra forfedra, þviad ver høfum syndgast á móte þer.

21. Enn fyrer þíns nafns saker, þá láttu oss eigi til skammar verda. Láttu eigi þad tignar sæted þinnar dyrdar spottad verda, minnstu á þad, og lát þinn sáttmála eigi enda taka vid oss.

22. Þar eru þó þeir enger afguder á medal heidingianna, sem døggena kunna ad gefa, so kann og himenenn ei helldur ad rigna. Þú ert þó sá Drottinn vor Gud á hvern ver vonum, þviad þú kannt allt þetta ad gera!

## 15. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til mín: og enn þó ad Moses og Samuel

þeir stæde framme fyrer mer, þá hefe eg þó eigi neitt hiarta til foiks þessa. Rek þá burt fra mer, og látu þá hedann fara.

2. Og ef þeir segia til þín: hvert skulum ver hedann? þá seg þú til þeirra, so seger Drottinn: sá ed deya skal hann kome þar til: sá sem under sverded skal hann kome þar til: sá sem hungra skal hann kome þar til: sa sem fangadur skal vera, hann kome þar til.

3. Þviad eg vil vitia þeirra med fiógra handa plágum, seger Drottinn: med sverde, so ad þeir skulu íhelslegner verda, med hundum, sem þá skulu slíta, med fuglum himensins, og dyrum á jørdunne, so ad þeir skulu upp etast og rotna.

4. Og eg vil láta burtdrífa þá hingad og þangad um øll kongaríke á jørdunne, sakerManasse, sonar Ezechie, konungsins Juda, vegna þess er hann hafde gert til Jerusalem.

5. Hver vill þer þá miskunsamur vera þú Jerusalem? hver mun þá medaumkun hafa med þer, hver mun þá burt ganga og útvega þer frid?

6. Þú hefir yfergefed mig, seger Drottinn: og ert frá fallenn frá mer, þar fyrer hefe eg útrett mína hønd á móte þer, so þad eg vil fordiarfa þig. Eg em þreyttur miskunsamur ad vera.

7. Eg vil med vindskuplunne burtkasta þeim úr landenu, og eg vil mitt fólk, þad sem eigi vill snúa ser burt frá sínum vondum vegum, gera med øllu føsdurlaust, og fyrerkoma þvi.

8. Fyrer mer skulu fleyre eckiur verda á medal þeirra enn þad sandurenn er vid siáfar strøndu, eg vil láta einn augliósleganu fordiarfara koma yfer mædurnar þeirra ungu mannskapar mannanna, og láta stadenn skyndelega og ófyrevarande yfer fallast.

9. So ad hún sem síø børn hefir skal aumleg vera, og út af hiarta andvarpa. Þviad hennar sól skal þegar á biørtum deige undergang, so þad bæde hennar frægd og føgnudur skal einn enda hafa, og þá sem afgangs eru vil eg gefa under þeirra óvina sverd, seger Drottinn.

10. Auvi mín móder! ad þú fædder mig, á mót hverum hver madur í øllu landenu deiler og þræter. Eg hefe hverke inntekeð ne útláted med okre, þó bølvar mer hver madur.

11. Drottinn sagde nú vel! eg vil nockrum af ydur epter hallda, þeim ed aptur skal vel ganga, og eg vil ydur til hiálpar koma í neydenne og þreyngslunum á medal óvinanna.

12. Meinar þú eigi, ad þar se einhverstadar eitt járn, sem sundur kunne ad slá þad járned, og þann koparenn af nordrenu?

13. Enn eg vil ádur fyrer framme gefa ydart gots og fiársióðu ad herfánge, so ad þer skulud eigi neitt fá þar fyrer, og þad sama fyrer allra ydarra synda saker, sem þer hafed framed í øllum ydrum landamerkium.

14. Og eg vil flytia ydur til óvina ydarra, í eitt land sem þer þeckid eigi, þviad elldurenn er upptendradur yfer ydur í minne reide.

15. Ah Drottinn! þú veitst þad, minnstu vor, og haf umsorg fyrer oss, og hefn þú vor á vorum ofsóknurum. Tak oss ad þer, og drag eigi undann þína reide við þá, þviad þú veitst þad, ver verdum forsmáder þinna vegna.

16. Enn Þitt ord er fundeð, og eteð af mer, og Þad sama Þitt ord er vor hiartans glede og huggun Þvi ver erum nefnder epter Þinu nafne, Drottinn Gud Zebaoth!

17. Ver samløgunst eigi vid hádungar mennena, ne glediunst helldur med Þeim. Helldur erum ver einer fyrer Þinne hende, Þviad Þú gerer Þig oſſa reidann vidur oſs.

18. Hvar fyrer Þá varer vor pína so lenge? og vor sár eru so med øllu vond, Þad engenn kann ad græda Þau? Þú ert oſs ordenn sem einn brunnur, sem eigi vill lengur uppſprettu vatn gefa.

19. Þar fyrer seger Drottinn so: ef ad Þú helldur Þer til mín, Þá vil eg hallda mer til Þín, og Þú skallt vera minn predikare, og ef Þú kenner hinum retláta, ad skilia sig burt frá Þvi illu fólke, Þá skalltu vera minn lærari. Og fyrr enn Þú skyllder falla til Þeirra, Þá skulu Þeir falla til Þín.

20. Þviad eg hefe gert Þig ad einum øruggum kopar múr, sgegn Þeſſu fólke. Þó ad Þeir stríde á móte Þer, Þá skulu Þeir Þó eigi yfervinna Þig, Þviad eg em hiá Þer, so ad eg vil hiálpa Þer, og frelſa Þig, seger Drottinn.

21. Eg vil og einnenn leysa Þig af hende Þeirra hinna ilskufullu, og frelſa Þig af vallde tyrannanna.

## 16. Capitule.

1. Og ord Drottins Þad skede til mín, og sagde:

2. Enga konu skalltu Þer til eignar taka, og hverke syne ne dætur geta í Þeſſum stad.

3. Þviad so seger Drottinn: ef Þeim sonum og dætrum sem fædaſt í Þeſſum stad, og einnenn af mædr-unum Þeirra, sem Þau fæda, og af fedrunum Þeirra, sem Þau geta í Þeſſu lande.

4. Þau skulu deya af sótt og Þau skulu hverke hørmud ne jørdud verda, helldur skulu Þau ad saur-endum verda í landenu, Þar ad auk fyrer sverde og hungre fyrer-faraſt, og Þeirra líkamer skulu fuglum loptsins og dyrum jardar-ennar ad átu verda.

5. Þviad so seger Drottinn: Þú skallt eigi ganga í hriggdar húſed, og eigi skalltu fara nockurstadar ad gráta, ne ad hafa samhørmung yfer Þeim. Þviad eg hefe burttek-ed minn frid frá Þeſſu fólke, seger Drottinn; líka einnenn mína nád og miskunſeme.

6. So ad bæde storer og smáer skulu deya í Þeſſu lande, og verda hverke jardader ne harmdauder, og engenn skal sundurreyta sig, ne gera sig skøllottann yfer Þeim.

7. Og ei skulu menn á medal Þeirra yfer harmakløguninne út-skipta, Þeim til hugsvølunar yfer líkenu, og ei gefa Þeim af hugg-unar bikarnum ad drecka epter fødur og módur.

8. Þar fyrer skalltu eigi inn-ganga í nockurt dryckiu hús, til ad sitia hiá Þeim, hverke til ad eta ne drecka.

9 Þviad so seger Drottinn Ze-baoth, Gud Israels: siá Þú! eg vil burttaka í Þeſſum stad fyrer ydrum augum, og ad ydur lifsøndum, rauſtena gledennar og unadsemd-arennar, rauſtena brúdgumans og brúdarennar.

10. Og nær ed Þú hefir nú sagt Þeſſu fólke allt Þetta. og Þeir segia til Þín: hvar fyrer mæler Drott-inn yfer oſs alla Þeſſa stóru ógæ-fu? hver er sá misgerningur og sú synd, Þar ed ver høfum med synd-

gast á móte Drottne Gude vorum?

11. Þá skalltu segia þeim, þar fyrer, ad ydrer fedur yfergáfu mig (seger Drottinn) og eptersylgdu annarlegum gudum, þiónudu þeim og tilbádu þá, enn mig yfergáfu þeir, og helldu eigi mitt lögmál.

12. Og þer gered þad enn verr enn ydrer forsedur, þviad siá þú! ad hver lifer epter sínum vonda hiartans þótta, so ad hann hlyder mer ei.

13. Þar fyrer vil eg útdrísa ydur af þessu lande, burt í þad land sem hverke þer ne ydrer forfedur af vita, þar skulud þer þióna annarlegum gudum dag og nótt, þar vil eg enga nád audsyna ydur.

14. Þar fyrer siá þú! sá tíme kemur, seger Drottinn: þad eigi skal framar sagt vera, so sannarlega sem Drottinn lifer, sá ed útleidde Jsraels børn af Egyptaland.

15. Helldur, so sannarlega sem Drottinn lifer, sá sem útleidde Jsraels børn af því nordurlandenu, og úr øllum þeim løndum sem hann hafde burtreked þá, þviad eg vil innflytia þá aptur í þad landed, sem eg hefe gefed þeirra forfedrum.

16. Siá þú! eg mun allmarga fiskemenn útsenda, seger Drottinn: þeir skulu veida þá, og þar epter vil eg útsenda marga veidemenn, þeir skulu uá þeim, uppá øllum fiøllum, og uppá øllum hædum, og í øllum biargskorum.

17. Þviad mín augu ályta alla þeirra vegu, so ad þeir kunna eigi ad dyliast fyrer mer, og þeirra misgerningur er óhulenn fyrer mínum augum.

18. Enn ádur fyrre þá vil eg þeirra misgerning og synd tvøsolldu launa, fyrer þad, ad þeir saurgudu mitt land medur líkunum sinna afguda, og uppfylldu mína arfleifd medur sínum svívirdingum.

19. Drottinn! þú ert minn styrkur og kraptur, og mitt athvarf í neydenne. Hiner heidnu munu til þín koma frá enda veralldarennar, og segia: vorer forfedur høfdu falska og fáfeingelega Gude, sem eigi kunnu ad hiálpa.

20. Hvernenn kann einn madur Gude ad gera, þá sem eigi eru Guder?

21. Þar fyrer, siá þú! ad nú vil eg kenna þeim, og kunngera þeim mína hønd, og vallde, so ad þeir skulu formerkia þad eg heite Drottinn.

## 17. Capitule.

1. Syndenn Juda er med járnstíl og med hvøssum Adamas skrifud, og útgrafenn á þeirra hiartans spiolldum, og uppá þeirra alltarishornum.

2. So ad þeirra børnum skule til hugar koma þau ølluriun, og lundarner í hiá þeim blomgudu triánum, upp á hásiøllunum.

3. Enn eg vil gefa þínar hæder, bæde á fiøllunum og á slettlendenu, med øllu þinu gotse og fiársiodum, til herfángs, fyrer þinna syndasaker, sem þú hefir gert innann allra þinna landamerkia.

4. Og þú skallt útrekenn verda af þinne arfleifd sem eg gaf þer, og eg vil gera þig ad þræle óvina þinna, í einu lande sem þú þecker eigi, þviad þer hafed upptendrad einn elld minnar reide sem brenna mun eylíflega.

5. So seger Drottinn: bølvadur er sá madur sem hefir sitt traust á mannenum, og helldur hollded

fyrer sinn arm, og burtvíkur frá Drottne med sínu hiarta.

6. Hann mun vera so sem annad lýng á eydemørkenne, og mun eigi siá þá tilkomande huggun, helldur mun hann vera í þurknum í eydemørkenne, í einu ófriofsømu lande, þar ed engenn bygger.

7 Enn blessadur er sá madur sem treyster á Drottinn, og hann, sem ad Drottinn er hans von.

8. Hann er líka sem eitt tre sem, ad gródursett er hiá vatnenu, og vid lækenn er rótfest. Þvi þó ad hitenn kome, þá er hann þó eigi hrædдur um sig, helldur eru hans laufblød græn, og kvíder eigi vid þá ad þerre áred kemur, helldur fæser hann ávøxt óaflátanlega.

9. Hiartad er metnadar fullur og ørvinlunarsamur hlutur, hver kann ad rannsaka þad?

10. Eg Drottinn kann hiartad ad rannsaka, og nyrunn ad prófa, og eg gef einum serhverium epter éverkenum sinna verka.

11. Þviad líka sem sá fugl er liggur á eggium og klekur þeim ei út, eins líka er sá sem rangfeinged fe tilsamans dregur, þvi hann hlýtur þar frá at fara þegar hann minnst varer, og hlytur þó ad sídurstunne dáruskap þar til ad hafa.

12. Enn sá stadurenn vors helgedoms, sem er, tignar sæted Guds hyrder, þad hefir alla tíma stadfast vered.

13. Þviad þú Drottinn! ert Israels von, aller þeir sem þig yfergefa þeir hliota til skammar ad verda, og þeir hiner/fráføllnu skulu í jørdena skrifast, þviad þeir yfergáfu Drottinn, sem er uppspretta hins lifande vatnsins.

14. Drottinn! lækna þú mig, þá verd eg heilbrigdur: hiálpa þú mer, þá em eg hiálpenn, þviad þú ert minn lofstír!

15. Siá þú! þeir segia til mín: hvar er þá þad ord Drottins? kære, láttu þad koma hingad.

16. Enn þar fyrer flyde eg eigi frá þer, þú mín hiørd. Og hefe og eigi gyrnst á dag mannsins, þad veistu, hvad eg hefe predikad, þad er rettferdugt fyrer þer.

17. Vertu ad eins eigi hrædelegur vid mig, þú mitt Athvarf í neydenne! láttu þá til skammar verda sem mig offsækia, enn eigi mig.

18. Láttu þá skelfast, enn eigi mig: láttu ólucku dagenn koma yfer þá, og ísundur slá þá tvøfalldlega.

19. So seger Drottinn til mín: far burt, og stattu í borgarhlidenu folksins, um hvert þad kongarner Juda ganga út og inn, og í øllum borgarhlidum Jerusalem, og seg þú til þeirra.

20. Heyred ord Drottins, þer konungar Juda, og gervøll Juda, og aller innbyggiararner í Jerusalem, sem innganged um þesse borgarhlid!

21. So seger Drottinn: vared ydur, og bered enga byrde á sabbaths deigenum ígegnum Jerusalems borgarhlid.

22. Og flyted engann byrdarþunga út af ydrum husum á sabbaths deigenum, og fremed ecke erfide, helldur helged sabbathsdagenn so sem þad eg hefe boded ydrum forfedrum.

23. Enn þeir heyra þad eigi, og hnegia eigi sín eyru, helldur blífa þeir hardsvírader, so ad þeir skulu eigi mer heyra, ne láta sig leidretta.

24. Ef þer heyred mer, seged Drottinn: so ad þer bered engann

byrdar þunga á sabbaths deigenum ígegnum þesse borgarhlidenn, helldur helged þann hinn sama, so ad þer gered eigi neitt verk á þeim sama deige,

25. Þá skulu og einnenn um þesse stadar portenn ganga út og inn konungar og høfdingiar, (þeir sem sitia á Davids stóle) rída og renna bæde á vøgnum og hestum, þeir og so þeirra høfdingiar, med øllum þeim sem búa í Juda og Jerusalem, og þesse borg skal þá byggiast æfenlega.

26. Og þeir munu koma út af stødunum Juda, og þeim sem þer liggia íkringum Jerusalem, og úr Benjamins lande, úr dølunum og fiallbyggdunum, og af sudrenu, sem fære offur, offrancr, matoffur og reykelse, til þess hússens Drottins.

27. Enn ef þer heyred mer eigi, so þad þer helged sabbaths dagenn, og bered ei neinn byrdar þunga inn um borgar hlidenn í Jerusalem á sabbaths deigenum, þá vil eg uppkveikia einn elld í hennar borgar hlidum, sá ed foreyda skal husunum í Jerusalem, og hann skal eigi útslockast.

## 18. Capitule.

1. Þetta er þad orded sem skede af Drottne til Jerimia, og sagde:

2. Statt upp og gack ofan í hús leirkera smidsins, þar vil eg láta þig heyra mitt ord.

3. Og eg geck ofan í húsed leirkera smidsins, og siá þú, hann sama tíma á hiolenu.

4. Og sá potturenn sem hann var ad gera af leirnum sundur brótnade í hans høndum, þá gerde hann einn annahn pott aptur, sem hønum þocknadest.

5. Þá skede ord Drottins til mín og sagde:

6. Kann eg eigi einnenn so ad gera vid ydur, þer af húse Israels! so sem ad þesse leirkera smidur? seger Drottinn: siá! líka sem þad leirenn er í leirkera smids hende, eins þá erud þer og so af Israels húse í minne hende.

7. Skyndelega tala eg á móte einnre þiód og kongsríke, þad eg vile uppræta, sundurbrióta, og fordiarfa þad.

8. Enn ef þad snyr ser burt frá sinne vondsku, á móte hverre eg tala, þá skal mig einnenn angra þá ógæfu sem eg hugde ad gera þeim.

9. Og snarlega tala eg um eina þiód og kongsríke, þad eg vile uppbyggia og grødursetia þad.

10. Enn ef þad gerer illa fyrer mínum augum, so ad þad hlyder eigi minne raust, þá skal mig og einnenn angra þad hid góda, sem eg hafde fyrerheited þeim ad gera.

11. So seg þú nú til þeirra í Juda, og til borgar mannanna í Jerusalem, so seger Drottinn: siá þú! eg tilbyd ydur eina ógæfu, og hefe einn hugarþancka á móte ydur. Þar fyrer snúe ser hver sem einn burt frá sínu vondu athæse, og bæted ydra breytne og gerninga.

12. Enn þeir segia: þar verdur eigi af, ver vilium ganga epter voru siálfs húgbode, og gera hver epter síns vonda hiarta húgarþanka.

13. Þar fyrer seger Drottinn: spyred epter á medal heidenna þióda, hver ad nockurn tíma hefir heyrt soddan, þad jungfrúenn Israel gerer so stora svívirdelega hlute.

14. Sniorenn er þó lengur á steinunum í mørkenne, nær ed þad sniðar her ad ofan frá Libanon, og

regn vatned rennur ei so snøggt burt, so sem þad mitt fólk forgleymer mer.

15. Þeir veyfa reykelsenn fyrer Gudunum, og uppbyria so hneixlaner á sínum vegum æfenlega, og ganga á ótrodnum vegum.

16. So ad þeirra land verde í eyde lagt, þeim til æfenlegrar skammar, so ad hver sem þar gengur framm hiá skal undrast þad, og hrista høfudet.

17. Þviad eg vil so sem med einum austanvinde ísundur dreyfa þeim fyrer þeirra óvinum. Eg vil sýna þeim baked, enn ei andlited, nær ed þeir fordiarfast.

18. Enn þeir segia: komed og tøkum rád á móte Jeremia, þviad prestarner kunna eigi villt ad fara í løgmálenu, og þeir hiner vísu kunna eigi ad bregdast rád ad gefa, og þeir prophetarner kunna ei órett ad kenna. Komed hingad, látum oss drepa hann med túngunne, og gefa engann gaum ad øllu þvi ed hann talar.

19. Drottinn! gef þú gætur ad mer, og heyr þá raustena minna mótstødu manna.

20. Er þad rett, ad madurenn laune godt med illu? Þviad þeir hafa grafed eina grøf minne sálu. Hugleid þad, hvernenn eg hefe framme staded fyrer þer, til ad tala þeirra ed besta, og snúa þinne grimmdar reide burt frá þeim.

21. Fyrer þad straffa nú þeirra børn med hungre, og lát þá í sverd falla, so ad þeirra kvinnur og ekiur verde barnlausar, og þeirra menn íhel slæest, og þeirra æsku menn medur vopnum veigest í strídenu.

22. So ad eitt hlióð heyrt verde úr þeirra húsum, hversu skyndelega ad þú hefir láted strídsmennena yfer þá koma. Þviad þeir hafa grafed eina grøf til ad veida mig í, og lagt snørur fyrer mínar fætur.

23. Og med þvi, Drottinn! ad þú veitst allann þeirra ásetning á móte mer, ad þeir vilia áfífa mig, þá fyrergef þú þeim eigi þeirra vondsku, og lát eigi þeirra synder afmádar verda fyrer þer; láttu þá verda nidurslegna fyrer þer, og breyt vidur þá epter þinne reide.

## 19. Capitule.

1. So seger Drottinn: gack burt, og kaup þer einn leirpott af leirsmidnum, med nockrum út af elldungunum folksins, og út af hinum elldstum prestum.

2. Og gack út í Ben Hinnoms dal, sem liggur fyrer utan tigulsteins ported, og predika þar þau ordenn, sem eg sege þer.

3. Og seg: heyred ord Drottins þer konungarner af Juda, og borgarmenn í Jerusalem! so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: stáed! eg vil láta soddan ózæfu ganga yfer þennann stad, ad hver sem þad heyrer, þad skal syngia í hans eyrum.

4. Þar fyrer, ad þeir forletu mig, og gáfu einum annarlegum Gude þennann stad, og hafa þar inne veyfad reykelse fyrer annarlegum Gudum, sem hverke þeir ne þeirra forfedur, ne konungarner Juda hafa þeckt, og hafa uppfyllt þennann stad med saklausu blóde.

5. Þvi þeir hafa Baal hæder uppbyggt, til ad brenna sín børn, Baal til brennu offurs, hvad eg hefe hverke boded þeim, ne nockurn tíma þar út af sagt, þar med kom þad alldrei í mitt hiarta.

6. Þar fyrer siá þú! sá tíme mun koma, seger Drottinn: þad þesse stadur skal eigi framar meir

kallast Thopheth, ne Ben Hinnom dalur, helldur mun hann dráps-dalur heita.

7. Þviad eg vil þá Guds þiónustuna Juda og Jerusalem í þessum stad nidurbrióta, og vil láta þá falla fyrer sverde, fyrer sínum óvinum, under þeirra hende, sem sœkia epter þeirra lífe, og þeirra líkame vil eg fuglum himensins og dyrum á jørdunne ad átu gefa.

8. Og þennann stad vil eg leggia í eyde, og til hádungar gera, so ad aller þeir sem þar framm hiá ganga, þeir skulu undra sig uppá allar þeirra plágur, og gera spe ad þeim.

9. Eg vil láta þá eta kioted sona sinna og dætra, og hver þeirra skal eta annars holld, í þeirre nœud og angist, sem ad þeirra óviner, og þeir ed sœkia epter þeirra lífe, munu þvinga þá med.

10. Og þú skallt ísundurbrióta leirpottenn fyrer þeim mønnum sem útgengu med þer.

11. Og seg þú til þeirra: so seger Drottinn Zebaoth: líka sem ad madur ísundur brytur potta smidsins leirker, þad sem eigi kann aptur hellt ad verda,

12. Eins líka so, þá vil eg ísundur brióta þetta fólk, og þennann stad, þar til med skulu þeir grafner verda í Thopheth, af því, ad þar mun eigi annad rúm til vera ad grafa. So vil eg umgangast med þessum stad, og hans innbyggiarum, seger Drottinn, ad stadurenn skal vera sem Thopheth.

13. Þar med skulu þau húsenn í Jerusalem, og húsenn konunganna Juda, verda so óhreinleg sem ad sá stadurenn Thopheth er. Já! øll þau húsenn, þar sem þeir báru reykelsed uppá þekiuna, handa øllum himensins her, og fórnudu annarlegum Gudum dryckiar offre.

14. Og þá Jeremias kom heim aptur frá Thopheth, þangad sem Drottinn hafde sendt hann út, til, ad spá, geck hann inn í forgardenn hiá húse Drottins, og sade til alls lydsins.

15. So seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: siá þú! eg vil láta koma alla þá ógœfu yfer þennann stad, og yfer alla hans stade, so sem þad eg hefe ádur umrœdt á móte hønum, af því, ad þeir eru hardsvírader, og vilia eigi heyra mín ord.

## 20. Capitule.

1. Enn þá ed Pashur prestur, sonur Immers prests, sem ad settur var til høfdingia í húse Drottins, heyrde, ad Jeremias spáde þessum ordum,

2. Þá sló hann Jeremiam propheta, og kastade hønum inn í hvolfed under því hæsta portenu Benjamins, sem er hiá húse Drottins.

3. Og ad morgne dags, tók Pashur Jeremiam burt úr hvolfinu. Þá sagde Jeremias til hans: Drottinn kallar þig eigi Pashur, helldur Magor allt umkring.

4. Þviad so seger Drottinn: siá þú! eg vil gefa þig og alla þína vine í hrædsluna, og þeir skulu falla fyrer sverde óvina sinna, þad hid sama skalltu siá med þínum augum. Og eg vil gefa gervallt Juda í hønd konungsins af Babylon, hann skal burtflytia þá til Babylon, og med sverde drepa.

5. Og so einnenn allt gotsed þessa stadarins, med øllu þeirra verksmide, og øllum dyrmætum gripum, og allann þann fiársióð konganna Juda, þá vil eg gefa í þeirra óvina hendur, so ad þeir

skulu ræna þvi, taka þad og flytia til Babylon.

6. Og þú Pashur, med øllu þínu heimkynne, skallt herteкenn ganga, og í Babylon koma, þar skalltu deya, og jardadur verda, med øllum þínum vinum, hverum ed þú predikar lygena.

7. Drottinn! þú hefir yfertalad mig, og eg hefe láted yfertala mig, þú ert mer ofoflugur ordenn, og þú hefir unned. Enn eg em daglega fyrer þad sama ad hádungu ordenn, og hver madur dárar mig.

8. Þviad sídann þad eg talade, kallade og predikade út af þeirre plágunne og foreydslunne, þá er mer þad ord Drottins daglega vorded til hádungar og dáruskapar.

9. Þá þeinkta eg: nú vel! eg vil ei lengur minnast hans, og predika eigi meir í hans nafne. Enn þad vard í mínu hiarta, so sem þad einn logande elldur hefde þar inne luktur vered, í mínum beinum, so ad eg kunne eigi ad lída þad, og eg var so nær forgeingenn.

10. Þviad eg heyre hversu marger straffa mig, og hræda mig alla vega, áklaged hann ákaflegana, ver vilium áklaga hann (segia aller míner viner og stallbrædur) ef ad ver gætum so fyrerkomed honum, komist ad honum, og hefnt ver á honum.

11. Enn Drottinn er hiá mer, sem einn øflugur kappe, þar fyrer munu míner ofoknar menn falla, og eigi sigur vinna, helldur munu þeir miog skammader verda, af þvi þeir breyta so fáviflega, æfennleg mun sú skømm vera, hverre ed eigi mun førgleymt verda.

12. Og nú Drottinn Zebaoth! sem prófar hinn rettferduga, þú sem ser nyrunn og hiørtunn, láttu mig siá þína hefnd á þeim, þviad eg hefe þer mitt málefne á hende folgeд.

13. Loffynged Drottne, vegsamed Drottinn, hann sem frelsad hefir lífed hins fátæka, úr hondum þeirra illgernu.

14. Bølvadur vere sá dagur, á hverum þad eg var fæddur, vansignadur vere sá dagur á þeim ed mín móder hún fædde mig.

15. Bølvadur se sá sem flútte mínum fødur góд tidende, og sagde: einn ungann son hefir þú feinged, ad hann villde gledia hann. Sá hinn same madur se so sem þeir stæderner hverum Drottinn umturnade, og þad angrade hann ei, og hann skal ad morgne heyra eitt óp, og um middeiged einn sorgar grát.

16. Ad þú hefir eigi helldur áslíffad mig í móđurkvide? so ad mín móder hefde mátt vera mín grøf, og hennar kvidur hefde þungadur vered alla æfe.

17. Hvar fyrer mun eg frammkomenn af móđur kvide? ad eg skyllde eiga ad siá soddann eymdarlag, og hiartans angur, og ad enda so mína lífdaga med skømm.

## 21. Capitule.

1. Þetta er þad orded sem skede af Drottne til Jeremia, þá ed kongurenn Zedechias sende Pashur, Malchia son, til hans, og Zephania, son Maesia prests, og let segia honum.

2. Adspyr þú Drottinn fyrer oss, þviad Nabuchodonosor, kongurenn af Babylon, stríder á móte oss. Pad Drottinn villde þó gera vid oss epter øllum sínum dásemdum, so ad hann mætte burtfara frá oss.

3. Jeremias sagde til þeirra: seged so Zedechia.

4. Þetta seger Drottinn Gud Israels: Siá þú! eg vil snúa þeim vopnum á bak aptur sem þer hafed í ydrum höndum, medur þeim er þer berest á móte kongenum af Babylon, og iméte þeim Chaldeis, sem ydur hafa umkringt her úte fyrer múrnum, og vil safna þeim tilsamans midt inn í stadenn.

5. Og eg vil strída á móti ydur med útrettre hende, med sterkum armlegg, med mikellre reide, grimmd, og miskunleyse.

6. Og eg vil slá borgarana þessa stadarins, bæde menn og fenad, so ad þeir skulu deya af mikellre drepsótt.

7. Og þar epterá (seger Drottinn) vil eg gefa Zedechiam, kongenn Juda, ásamt hans þenørnon, og það fólked sem epter verdur í þessum stad af drepsóttenne, sverdenu, og hungrenu, í hendur Nabuchodonosor, kongenum af Babylon, og í þeirra óvina hendur, og í þeirra hinna sömu hendur sem leita epter þeirra líse. Ad hann skule so slá þá med sverdsegginni, ad þar skal engenn vægd edur vorkun, ne miskunseme á vera.

8. Og seg þú þessu fólke, so seger Drottinn. Siá þú! eg legg fyrer ydur veigenn til lífsins, og veigenn til daudans.

9. Hver hann blífur í þessum stad, sá skal deya fyrer sverde, hungre, og drepsótt. Enn hver sem gefur sig út til þeirra Chaldeos, sem ydur hafa umkringt, sá skal lifa, og sínu líse behallda, sem ødru hlutskipte.

10. Því ad eg hefe sett mitt auglit út yfer þennann stad til ógæsu, til einskis gods, seger Drottinn, hann skal gefast í hendur konungsins af Babylon, so ad hann skal brenna hann upp med ellde.

11. Og heyred ord Drottins: Þer af húsenu kongsins Juda!

12. Þú Davids hús! so seger Drottinn, halldid domenn á morgnenum, og frelsed þann sem rænt ur er af hende offoknarans, uppá þad mín grimmd skule eigi útfara sem elldur, og brenna, so ad engenn kunne út ad slocka, fyrer ydars vondsleg athæfes saker.

13. Siá þú! seger Drottinn: eg sege þer, þú sem byr í dalnum, á biørgunum, og á slettlendenu, og þú seger: hver vill oss yfergang veita, edur innkoma í vora her kastala.

14. Eg vil sækia ydur heim (seger Drottinn) epter ávexte ydara verka: eg vil kveikia einn elld í hennar skoge, hann skal foreyda øllum hlutum, þar allt umkring.

## 22. Capitule.

1. So seger Drottinn: gack þú ofann í húsed konungsins Juda, og tala þar þesse ord, og seg:

2. Þú kongurenn Juda, sem sitiur uppá Davids stóle, heyr þú ord Drottins, bæde þú og þíner þenarar, og þitt fólk sem um þessar dyr innganga!

3. So seger Drottinn: halldid rettinn og rettvísena, og frelsed hinn rænta af hende offoknarans, og pláged eigi hinn framanda, fødurleysingiann, og eckiuna, og gered engum ofrike, og úthelled eigi saklausu blóde í þessum stad.

4. Ef ad þer gered þetta, þá skulu þeir konúngarner sem sitia a Davids stóle inn fara um dyrnar þessa hússens, bæde á vøgnum og hestum, med sínum þenurum og fólke.

5. Enn ef þer hlyded eigi þessu, þá hefe eg svared vid siálfann mig (seger Drottinn) ad þeita hús skal nidurbroted verda.

6. Þviad so seger Drottinn af húsenu kongsins Juda: Gilead! þu ert mitt høfud i Libanon, hvad gillder? eg vil gera þig eyde, og þá stadena syner utann innbyggiara.

7. Þviad eg hefe útvegad fordydslu menn yfer þig, hvern med sinne veru; þeir skulu afhøgga þin útvalenn cedrustre, og kasta þeim i elld.

8. Þá munu marger heidingiar ganga framm hiá þessum stad, og segia hver til annars: hvar fyrer mun Drottinn hafa so breytt vid þennann mikla stad?

9. Og þar mun so svarad verda: af þvi þeir yfergáfu sáttmálann Drottins Guds síns, og tilbádu annarlega Gude, og þiónudu þeim.

10. Gráted eigi yfer frammlidnum, og gremed ydur eigi þess vegna, enn gráted helldur yfer þeim sem i burt fer, þviad hann mun alldrei aptur koma, þad hann fáe ad siá sitt fødurland.

11. Þviad so seger Drottinn: af Sallum, syne Josia, kongsins Juda, hann hver ad er kongur i stadenn síns fødurs Josia, hver ed i burt er farenn af þessum stad, hann mun eigi hingad aptur koma.

12. Helldur mun hann deya i þeim stad, þangad sem hann er hertekenn og burtsluttur, og hann mun eigi meir siá þetta land.

13. Vei se þeim sem bygger sitt hús med synd, og sín herberge med ørettenum, hann sem lætur sinn náunga erfida fyrer ecke, og gefur honum eigi sitt verdkaup.

14. Og þeinker so: nú vel! eg vil byggia mer eitt stort hús, og vídann sal, og lætur høgga ser vindaugu þar á, og þilia med cedrus vide, og mála út med raudu.

15. Hvert þeinker þú, ad þú viler þar fyrer kongur vera, þó ad þú hallder þer til med cedrus vide? hefir eigi einnenn þinn fader eted og drucked, og gerde þó samt rettann dóm og rettvísena, og þad vegnade honum vel.

16. Hann hiálpade hinum þurftuga og fátæka til rettarins, og þad geck honum vel. Er þad eigi so, ad slíkt kallest rettelega ad þeckia mig, seger Drottinn?

17. Enn þín augu, og þitt hiarta, standa eigi so, helldur uppá þína ágyrne, uppá þad, ad úthella saklausu blóde, til ad veita yfergang og underþrickia.

18. Þar fyrer seger Drottinn af Joachim, syne Josia, konungenum i Juda, þad eigi munu þeir harma hann: æ broder! æ syster! og þad eigi munu þeir gráta hann. Æ þú Herra! æ þú ætt-gøfuge!

19. Hann mun jardadur verda sem annar asne, dreigenn og útkastadur fyrer portenn i Jerusalem.

20. Já! gack þá uppá Libanon, og kalla, og lát heyra til þín i Basan, og kalla frá Abarim, þviad aller þíner astviner eru herfelega deydder.

21. Eg sagde þer þad ádur fyrerframm, þá ed þad geck enn vel til fyrer þer, enn þú sagder: eg vil eigi heyra. So hefir þú gert alla þína lífdaga, ad þú villder eigi hlyda minne raustu.

22. Vindurenn skal fæda alla þína hyrdara, og þíner ástmenn fara hertekner i burt, þar hlytur þú þó til hádungar og skammar ad verda, fyrer allra þinna illgerda saker.

23. Þú sem nú byr í Libanon, og breidrar þig í cedrusvide, hvor su dælegur muntu þa ásits vera, nær ed yfer þig kemur hörmung og harmkvæle, lika sem jodsiúkrar konu.

24. So sannarlega sem eg life (seger Drottinn): þóJechonias, sonur Joachims, konungsins Juda, være einn signets hringur á minne hægre hende, þá villda eg þó slíta þig þar út af.

25. Og gefa þig í þeirra hendur sem leita epter þinu life, og fyrer hvörum ad þú ert hræddur, sem er, í hendur Nabuchodonosors, konungsins af Babylon, og í hendur þeirra Chaldeiskn.

26. Og eg vil útkrísa þig, og þína módur sem þig fædde, burt í eitt annad land, sem eigi er ydart föðurland, og þar skulud þid deyja.

27. Og eigi koma aptur hingad í þetta land, í hvøru þeir villdu þó af hiarta fegner vera.

28. Hversu aumlegur, forsmánarlegur og útbrakenn madur þá er Jechonias? eitt audvirdelegt ker, ah! því er hann so útslæmdur med sínu sæde, og í burt snaradur í eitt ókunnugt land?

29. O þú land! land! land! heyr þú ord Drottins!

30. So seger Drottinn: skrifed þennann mann upp fyrer einn for biarfadann, fyrer hann mann sem eigi mun vel luckast um sína lífdaga. Þviad hann mun eigi þá hamingiu hafa, þad nockur út af hans sæde skule sitia á stóle Davids, og frammveigis rikis stiorn hafa í Juda.

## 23. Capituli.

1. Vei ydur hyrdurum! þer sem fyrerfared og sundurdreifed minne hiørd, hvera eg fæde, seger Drottinn.

2. Þar fyrer seger Drottinn Gud Israels: út af þeim hyrdurunum sem fædu gefa minu fólke, þer hafed sundurdreift, og burtreked mína hiørd, og hennar eigi vitiad: síed! eg vil sækia ydur heim, fyrer ydars illskulegs athæfis saker, seger Drottinn.

3. Og eg vil þeim sem epter eru ordner af minne hiørd, samansafna út af øllum løndum, þadann sem eg hefe burtdrifed þá, og eg vil flytia þá aptur til sinna hiardarhúsa, so ad þeir skulu vaxa, og marger verda.

4. Og eg vil setia hyrdara yfer þá, þeir ed þeim skulu fædslu gefa, so ad þeir skulu eigi meir hrædast, ne skelfast, ne heimsokter verda, seger Drottinn.

5. Siá þú! sá tíme kemur, seger Drottinn: þad eg vil David uppvekia einn rettlátann kvist, og hann skal einn kongur vera, sá ed vel mun stiorna, og gera rettenn og rettvísena á jørdu.

6. Á þeim sama tíma skal Juda hólpenn verda, og Israel ugglaus búa. Og þetta mun hans nafn vera, ad menn munu kalla hann Drottinn, sem er vor rettlæting.

7. Þar fyrer siá þú! sá tíme mun koma, seger Drottinn, ad eigi mun meir sagt verda, so sannarlega sem þad Drottinn lifer, sá ed útleidde Israels børn af Egyptalande,

8. Helldur, so sannarlega sem Drottinn lifer, sem útflutte og sokte þad sæded húsfens Israel, út af nordurlandenu, og úr øllum þeim løndum hvert eg hefe burtrekid þá, so ad þeir skulu búa í sínu lande.

9. Mitt hiarta þad vill sundur springa í mínu líse, øll min bein

þau skiálfa, mer er so sem for-
drucknum manne, og sem þeim ad
hrasar af vijne, fyrer Drottne, og
fyrer hans heiløgu orde.

10. Ad landed er so fullt af hórd-
oms mønnum, ad landed stendur
so aumlega, ad þvi er so fyrer-
mællt, og ad eingiarnar á eydo-
mørkenne eru í burt þornadar, og
þeirra lifnadur er vondur, og þeir-
ra stiornan duger eigi.

11. Þviad bæde prophetarner
og prestarner eru illmenne, og eg
finn einnenn þeirra illsku í mínu
húse, seger Drottinn.

12. Þar fyrer er þeirra vegur
so sem einn hálku vegur í myrkre-
nu, á hverum ed þeir skridna og
falla. Þviad eg vil láta ógæfu
yfer þá koma, á áre þeirra vitiun-
ar, seger Drottinn.

13. Ad sønnu, þá sá eg heimsku
hiá prophetunum í Samaria, ad
þeir spádu fyrer Baal, og áfvega
leiddu mitt fólk Israel.

14. Enn hiá prophetum til Je-
rusalem se eg svívirdingar, hvern-
enn ad þeir drya hórdoma, og fara
med lygar, og stirkia hina illsku
fullu, so þad engenn skule snúa ser
burt frá sinne illgyrne. Aller eru
þeir fyrer mer líka sem Sodoma,
og þeirra borgar menn so sem Go-
morra.

15. Þar fyrer seger Drottinn
Zebaoth so: af þeim prophetunum,
siá þú! eg vil fæda þá med malurt,
og dryckia þá med galle, þviad af
þeim prophetunum til Jerusalem
kemur hræsne í allt landed.

16. So seger Drottinn Zebaoth:
hlyded eigi ordum þeirra prophet-
anna sem spá fyrer ydur, þeir svikia
ydur, þviad þeir predika sióner síns
hiarta, og eigi af munne Drottins.

17. Þeir segia til þeirra sem
mig lasta, Drottinn hefir sagt þad,
ad ydur skule vel ganga. Og þeir
segia til allra þeirra sem ganga
epter þotta síns hiarta, þar skal
engenn ógæfa koma yfer ydur.

18 Þvi hver hefir staded í ráde
Drottins, sá ed hefir sed edur heyrt
hans ord? hver hefir formerkt og
heyrt hans ord.

19. Siá þú! stormvindur Drott-
ins mun koma med grimmd, og eitt
hrædelegt óvedur mun falla yfer
høfud hinna ógudlegu.

20. Og reide Drottins mun ei
afláta þangad til ad hann hefir þad
gert, og þvi til vegar komed sem
hønum byr í skape, her epterá mun-
ud þer vel formerkia þad.

21. Eg sende eigi þá prophet-
ana, þó hlupu þeir: eg talade eigi
til þeirra, þó spádu þeir.

22. Þvi þar sem þeir hefdu ver-
ed vid mitt rád, og hefdu predikad
mitt ord mínu fólke, þá hefdu þeir
snúed þvi frá sínu vondu athæfe,
og frá sínum vondslegum lifnade.

23. Er eg eigi sá Gud sem ná-
lægur er, seger Drottinn: og eigi
sá Gud, sem fiærlægur er?

24. Þeinker þú, ad nockur kun-
ne so leynelega ad fela sig, þad
eg sáe eigi sed hann? seger Drott-
inn: em eg eigi sá sem upp fyller
himen og jørd? seger Drottinn.

25. Eg heyri þad vel, ad pro-
phetarner þeir predika og spá falsk-
lega í mínu nafne, og segia: mig
dreymde, mig dreymde.

26. Hvenær vilia þó þeir pro-
phetarner linna sem spá falsklega,
og ad spá þeirra hiartans svik-
ræde?

27. Og vilia ad mitt fólk for-
gleymе mínu nafne, yfer þeirra
draumum, sem hver þeirra predik-
ar fyrer ødrum, líka sem ad þeirra
forfedur forgleymdu mínu nafne
fyrer Baals saker.

28. Sá prophete sem hefir drauma, hann predika drauma, enn hver hann hefir mitt ord, sá predike mitt ord refteléga. Hvad skal halmstráed saman vid hveited? seger Drottinn.

29. Er mitt ord eigi lika sem einn elldur, seger Drottinn, og lika sem einn hamar, sá ed biarg-einn ísundur molar?

30. Þar fyrer siá þá, eg vil til vid þá prophetana, seger Drottinn: þeir ed stela minu orde, hver frá ødrum.

31. Siá þú! eg vil til vid þá prophetana, seger Drottinn: sem frammflytia þeirra eigenn ord, og segia: hann hefir sagt þad.

32. Siá þú! eg vil til vid þá, sem fyrer spá falskléga drauma, seger Drottinn, og predika þá enu somu, og villa mitt fólk med sinum lygum og lausmælge, hvera ad eg hefe þó ei utsendt, og ei helldur bóded þeim þad, og þeir eru eigi einnenn þessu fólke nytsamleger, seger Drottinn.

33. Nær ed þetta fólk, eda einn prophete, ellegar einn prestis madur spyr þig ad, og seger: hver er sá Drottins byrdarþunge? þá skalltu segia til þeirra: hver sá byrdarþungenn se, eg vil burtkasta ydur, seger Drottinn.

34. Og ef einhver prophete eda prestur, ellegar fólked seger: þad er sá byrdarþungenn Drottins, þann vil eg heimsækia, og hans hús þar til med.

35. Enn so mun hver vid annann tala, og sin á millum segia: hveru svarade Drottinn? og hvad seger Drottinn?

36. Og kalla þad eigi meir einn byrdarþunga Drottins, þviad hvers manns sialfs eiged ord skal vera honum einn byrdarþunge, þar fyrer, ad þer umsnúed so ordunum þess lifanda Guds, þess Drottins Zebaoth vors Guds.

37. Þar fyrer skulud þer segia so til prophetanna, hveru svarade Drottinn þer, og hvad seger Drottinn?

38. Enn med þvi þer seged, byrdarþunge Drottins, þar fyrer þá seger Drottinn so: nú, þer kalled þetta ord einn byrdarþunga Drottins, og eg hefe sendt til ydar, og láted segia til ydar, ad þer skylldud eigi kalla þad einn byrdarþunga Drottins.

39. Siáed! so vil eg ydur burttaka, ásamt med stadnum sem eg hefe gefed ydur og ydrum forfedrum, og burtsleygia ydur frá minu auglite.

40. Og eg vil láta yfer ydur koma æfenlega skomm, og eilifa forsmán, sem alldreige skal forgleymd verda.

## 24. Capitule.

1. Siá þú! Drottinn synde mer tvær fikiu karfer, settar úte fyrer musterenu Drottins, (epter þad þá ed Nabuchodonosor, konungurenn af Babylon, hafde burt flutt Jechoniam, son Joachims, konungsins Juda, medur høfdingiunum é Juda, tresmidum og hagleiksmonnum af Jsrusalem, og ført þá til Babylonar.)

2. J þeirre einu kørfenne voru miøg gódar fikiur, so sem ad eru þær hinar fyrstu fullvexnar fikur. J hinne annare kørfennevoru miøg illar fikur, ad þær voru eigi etande, so illar voru þær.

3. Og Drottinn sagde til min: Jeremia! hvad ser þú? eg sagde: fikur, þær gódu fikiurnar eru miøg gódar, og hinar vondu, eru miøg vondar, so ad þær eru eigi etande, so illar eru þær.

4. Þá skede ord Drottins til mín, og sagde:

5. So seger Drottinn Gud Israels: líka sem ad þessar fíkiurnar eru godar, so vil eg nádarsamlega taka þá ad mer sem sangader eru af Juda, hvera eg hefe burt láted fara af þessum stad, í land þeirra Chaldeiśu.

6. Og eg vil lyta nádarsamlega til þeirra, og innflytia þá aptur í þetta land, og eg vil uppbyggia þá, enn eigi brióta þá af. Eg vil gródursetia þá, enn eigi uppræta.

7. Og eg vil gefa þeim eitt hiarta, ad þeir skulu þeckia mig, þad eg se Drottinn, og þeir skulu vera mitt fólk, þá vil eg vera þeirra Gud, þviad þeir skulu snúa ser af ollu hiarta til mín.

8. Enn líka sem ad þær vondu fíkurnar eru so vondar, ad menn kunna eigi ad eta þær, (seger Drottinn) so vil eg burtgefa Zedechiam, kongenn Juda, ásamt hans høfdingia, og þad hvad epter er orded til Jerusalem, og epter í þessu lande, og þá sem búa í Ægyptalande. Eg vil tilsenda þeim ógæfu.

9. Og láta þá eigi vera rólega í neinu kongaríke á jordu, so ad þeir skulu ad skømm verda, og ad ordskvide, og frasøgu, og ad bølvan, í øllum stødum, þangad sem eg mun burtreka þá.

10. Og eg vil á medal þeirra senda sverd, hungur, og drepsott, þangad til ad þeir foreydder verda, út af þvi lande, sem eg hefe gefed þeim og þeirra forfedrum.

## 25. Capitule.

1. Þetta er þad ord sem skede til Jeremia, yfer øllu fólke Juda, á fiórda áre Joachims, sonar Josia, konungsins Juda (hvert ed var þad fyrsta áred Nabuchodonosor, konungs af Babylon.)

2. Hvad er prophetinn Jeremias talade einnenn til alls fólksins Juda: og til allra borgarmannanna í Jerusalem, og sagde:

3. Ord Drottins skede til mín, á þvi hinu þrettanda árenu Josia, sonar Amon, konungsins Juda, allt til þessa dags, og eg hefe kostgæfelega predikad fyrer ydur, í þriú ár og tuttugu, enn þer hafed alldrei viliad heyra þad.

4. So hefir einnenn Drottinn sendt til ydar alla sína þenara, þá prophetana, kostgæfelega, enn þer hafed alldrei vilkad heyra þeim, ne adhneygia ydar eyru til ad hlyda þeim.

5. Þá ed hann sagde: snúed ydur hver sem einn burt frá sínum vondum veige, og burt frá ydru vondu athæse, þá skulud þer ávallt og æfenlega vera í þvi landenu, sem Drottinn hefir gefed ydur og ydrum forfedrum.

6. Epterfylged eigi annarlegum gudum, so ad þer þióned þeim, edur tilbided þá, uppá þad þer reyted mig ei til reide med ydrum handaverkum, og þad eg tilsende ydur ógæfu.

7. Enn þer villdud ei hlyda mer, seger Drottinn, so ad þer gérdud mig fullkomlega reidann, med ydrum handa verkum, ydur til eigennlegrar ógæfu.

8. Þar fyrer seger Drottinn Zebaoth: fyrst þer viled eigi þá heyra mín ord.

9. Siá þú! þá vil eg útsenda og koma láta allt fólk á móte nordrenu, (seger Drottinn) og einnenn minn þenara, Nabuchodonosor, konungenn af Babylon, og eg vil færa þá yfer þetta land, og yfer þá

sem búa þar inne, og yfer allt það fólk, sem þer liggur umkring, og eg vil bannfæra þá, og foreyda þeim, og gera þá að hæðung, og eylífre foreyðslu.

10. Og eg vil hedann burttaka allann gledelegann söng, reusstena brúdgumans og brúdarennar, kvarnar nidenn, og liós lycktarennar,

11. So að allt þetta land skal liggia í eyde, og nidurbroted verda. Og þetta fólk skal þióna kongungenum af Babylon í siötíu ár.

12. Enn þegar þau siötíu árenn eru lidenn, þá vil eg sækia heim konungenn í Babylon, og allt það fólk (seger Drottinn) fyrer þeirra misgerda saker, þar med einnenn land þeirra Chaldeisku, og það vil eg gera til einnrar eylífrar foreydslu.

13. So vil eg innflytia öll mín ord yfer þetta land, þau sem eg hefe talad á móte því, sem er allt þetta, hvad skrifad stendur í þessare bók, það sem Jeremias hefir spád um allt fólk.

14. Og þeir skulu einnenn þióna, þó að þeir seu eitt mikelsháttar fólk, og mikler konungar. So vil eg endurgiallda þeim epter þeirra verd skulldan, og epter þeirra han da verkum.

15. Þviad so seger Drottinn Gud Israels til mín: tak þennann bikar af minne hende, fullann af reidennar víne, og skeink öllu fólke þar af, til hvers að eg sende þig.

16. So að þeir drecke, dette, og verde galer fyrer því sverde sem eg vil senda á medal þeirra.

17. Og eg tók bikarenn af hende Drottins, og skeinkte öllu fólke, til hvers að Drottinn sende mig.

18. Sem er, Jerusalem, borgunum Juda, þeirra kongum og hösdingium, so að þeir skulu í eyde nidurbrótner liggia, og vera so ein hádung og bölvan, so sem að það er þennann dag.

19. Og einnenn Pharaone, konungenum í Egyptalande, med hans þenurum, hans hösdingium, og öllu hans fólke.

20. Öllum löndum á móte vestrenu. Öllum konungum í landenu Uz; öllum konungum í Palestína lande, med Ascalon, Gasa, Acharon, og þeir sem epter eru í Asdod:

21. Þeim af Edom; þeim af Moab; þeim börnum Ammons.

22. Öllum konungunum til Tyro; öllum kongunum í Zidon; þeim kongunum í eyunum, hinummeigenn hafsins.

23. Þeim af Dedan; þeim af Thema; þeim af Buz, og öllum hösdingium í þeim yztasum.

24. Öllum konungum í Arabia; öllum konungum móte vestrenu, sem búa í eydemörkenne.

25. Öllum konungum í Zimri; öllum kongum í Elam; öllum konungum í Meden.

26. Öllum konungum mót nordrenu bæde nærre og fiærre, einum sem ödrum, og öllum konungum á jördunne, þeim sem á jardríke eru; og konungurenn Sesach skal drecka epter þessa.

27. Og seg þú til þeirra: so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: dreckeð, so að þer verded druckner, spyed, og falled nidur, og meiged ei uppstanda, fyrer sverdenu því, sem eg vil senda á medal ydar.

28. Og ef þeir vilia ei taka vid bikarnum af þinne hende, og drecka, þá seg þú til þeirra: so seger Drottinn Zebaoth.

29. Nú skulud þer drecka. Því

ed siá þú! eg vil upphefia ad plága í þessum stad, sem ad nefndur er epter minu nafne, og skylldud þer óstraffader vera? Þer skulud eigi óstraffader vera, þvíad eg kalla sverded yfer alla þá sem búa á jördunne, seger Drottinn Zebaoth.

30. Og þú skallt spá þeim öll þesse ord, og segia til þeirra: Drottinn mun grenia af hædunum, og láta heyra sína reydarþrumu, af sínum heilaga bústad; hann mun grenia yfer sínum lystelega stad; hann mun syngia eitt kvæde, so sem þeir ed vínþrúguna troda, yfer öllum innbyggiurum landsins.

31. Hver hliómur heyrast mun allt til veralldarennar enda Drottinn hann hefir kærumál vid heidingiana, og vill kallda dóm vid allt holld; hann mun yfergefa hina ógudlegu under sverded, seger Drottinn.

32 So seger Drottinn Zebaoth: siá þú! þar mun koma plága frá einu fólke til annars, og eitt miked stormvidre mun uppvaked verda, í frá sidunne landsins.

33. Þá munu þeir sem slegner eru af Drottne, á þeim sama tíma, liggia í frá einum jardar endanum, allt til eins annars endans. Eigi skulu þeir harmader verda, ei upptekner, ne jardader, helldur skulu þeir á völlunum liggia, og ad ódreinendum verda.

34. Ylid nú, þer hyrdarar! og hróped, vellted ydur í ösku, þer volldugar yfer hiördenne! þvíad sá tíme er hér, ad þer skulud slátrast og sundurdreifder verda, og ísundurbrótna, sem eitt kostulegt ker.

35. Og hyrdararner skulu eigi undflýed geta, og hiner volldugu yfer hiördenne skulu eigi kunna undann komast.

36. Þá munu hyrdararner hátt hrópa, og hiner volldugu yfer hiördenne munu æpa, ad Drottinn hefir so eydelagt þeirra hagleande.

37. Og þeirra eingiar, sem so vel stódu, eru fordiarfadar, fyrer grimmlegre reide Drottins.

38. Hann hefir yfergefed sína tialldbúd sem eitt ungt Leon, og þeirra land er so í eydelagt, af víkingsins þunglegre heipt, og af hans grimmdarfullre reide.

## 26. Capitule.

1. Jupphafe konungsríkis Joachims, sonar Josía, konungsins Juda, skede þetta ord af Drottne, og sagde.

2. So seger Drottinn: gack þú í forgardenn á húse Drottins, og predika fyrer öllum stadunum Juda, sem þar inngánga ad tilbidia í húse Drottins, öll þau ord sem eg hefe boded þer ad segia þeim, og tak eigi neitt þar frá.

3. Ef so verda mætte, ad þeir villdu þad heyra, og snúa ser, hver einn burt frá sínu vondu athæfe, so ad mig mætte og einnenn ángra þær meinsemder, sem eg þeinke þeim ad gera, fyrer þeirra vondslegs athæfes saker.

4. Og seg til þeirra: so seger Drottinn: ef þer viled eigi hlyda mer, so ad þer gangid í mínu lögmale, því sem eg hefe lagt ydur fyrer.

5. Ad þer heyred ordenn minna þenara, prophetanna, þá sem eg hefe alla tíma til ydar sendt, og þer villdud þó eigi heyra.

6. Þá vil eg gera vid þetta hús, so sem vid Silo, og gera þennann stad öllum heidingium á jördunne til bölvunar.

7. Þá ed nú prestarner, prophetarner, og allt fólked, heyrdu Jere-

miam, ad hann talade soddann ord í húse Drottins,

8. Og er Jeremias hafde úttalad allt hvad Drottinn hafde boded honum ad segia ollu fólke, þá gripu prestarner hann, prophetarner, og allt fólked, og sogdu: þú hlytur ad deya.

9. Hvar fyrer dyrfest þú ad spá í nafne Drottins? og segia: Þad skal ganga þessu húse so sem Silo, og þesse borg skal foreydd verda, so ad engenn skal framar þar inne búa, og allt fólked safnadest tilsamans í húse Drottins, ígegn Jeremia.

10. Þá ed hofdingiarner Juda heyrdu þetta, gengu þeir út af konungsins húse, upp í hús Drottins, og settu sig nidur fyrer þeim nyu dyrunum Drottins.

11. Og prestarner, og prophetarner, sogdu fyrer hofdingiunum, og ollu fólke: Þesse er dauda verdur, þviad hann hefir spád móte þessum stad, sem þer hafed heyrt med ydrum eyrum.

12. Enn Jeremias sagde til allra hofdingianna, og til alls folksins: Drottinn hefir sendt mig, ad eg skyllde spá á móte þessu húse, og móte þessum stad, allt þad sem þer heyrdud.

13. Þar fyrer þá forbetred nú nú ydart athæfe, og breytne, og hlyded raustenne Drottins Guds ydars, so mun og Drottinn idrast þeirrar meinsemdar, sem hann hefir talad á móte ydur.

14. Sia þú! eg em í ydrum hondum, þer meiged gera til vid mig, hvad ydur þyker rett og godt vera.

15. Þó skulud þer vita, ef þer lífláted mig, þá munud þer úthella saklausu blóde yfer ydur siálfa, yfer þennann stad, og hans innbyggiara, þviad sannarlega hefir Drottinn sendt mig til ydar, ad eg skyllda tala þetta allt fyrer ydrum eyrum.

16. Þá sogdu hofdingiarner og allt fólked til prestanna, og prophetanna: Þesse er eigi dauda verdur, þviad hann hefir talad til vor í nafne Drottins Guds vors.

17. Og nockrer af olldungunum landsins stódu upp, og sogdu til alls mannsioldans.

18. Í tíd Ezechia, kongungsins Juda, var her einn prophete, Micheas af Maresa, og hann sagde til alls folksins Juda: so seger Drottinn Zebaoth: Zion skal plægiast sem annar akur, og Jerusalem skal verdá ad griothrúgu, og þad fialled sem húsed Drottins er á, skal verda ad uillu skoge.

19. Enn þó let Ezechias kongur, og allt Juda, eigi þar fyrer ad helldur lífláta hann. Já! þeir óttudust miklu framar Drottinn, og tilbádu fyrer Drottne. Þá idradest einnenn Drottinn þess hins vonda, sem hann hafde talad á móte þeim, þar fyrer gerum ver miog illa á móte vorum sálum.

20. Þar var og einn sem spáde í nafne Drottins, Uria, Semeja sonur, af Kiriath Jearim, hann spáde ígegn þessum stad, og gegn þessu lande, líka sem Jeremias.

21. Enn þá ed kongurenn Joachim, og aller hans magtar menn, og hofdingiar heyrdu hans ord, þá villde konungurenn láta drepa hann. Og Uria spurde þad, hræddest, og flyde undann, og fór burt í Egyptaland.

22. Enn kongurenn Jochim sende menn epter honum til Egyptalands, Elnathan, Achbors son, og adra med honum.

23. Þeir sóttu hann af Egyptalande, og færdu hann fyrer kongenum Joachim, enn hann let aflífa hann

med sverde, og let sídann jarda hans líkama hiá alþydu fólke.

24. So var hønd Ahikams, Saphans sonar, med Jeremia, so ad hann kom ei í folksins hendur, ad þad íhelsíæ hann.

## 27. Capitule.

1. Í uppháfe kongsríkis Joachims, sonar Josia, konungsins Juda, skede þetta ord af Drottne til Jeremia, og sagde:

2. So seger Drottinn til mín: ger þer eitt ok, og leing þad um þinn háls.

3. Og send þad til kongsins í Edom; til kongsins í Moab; til kongsins þeirra Amons barna; til kongsins í Tyro; og til kongsins í Zidon; med þeim sendebodunum sem komner eru til Jerusalem, til Zedechia konungsins Juda.

4. Og biod þeim, ad þeir sege til sinna yferherra, so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: so skulud þer segia ydrum herrum.

5. Eg hefe gert jardríked, og so mannenn, og so fenadenn, sem á jørdunne er, fyrer minn hinn mikla krapt, og útrettann armlegg, og eg gef þad hverium eg vil.

6. Enn nú hefe eg gefed øll þesse lønd í hønd míns þenara Nabuchodonosors, kongsins af Babylon, og hefe og gefed hønum þau villudyrenn sem eru á mørkinne, so ad þau skulu þióna hønum.

7. Og allt folk skal þióna hønum, og hans syni, og hans sonarsyni, þangad til ad og so kemur tíminn hans lands, þviad margar þióder og megtuger kongar skulu hønum þióna.

8. Enn hver sú þiód og kongsríke, sem eigi vill þióna Nabuchodonosor, kongenum af Babylon, og hver ed eigi vill gefa sinn háls under hans ok, þad folk vil eg heimsækia med sverde, hungre og drepsótt, seger Drottinn, þangad til ad eg fyrerfer þeim fyrer hans hønd.

9. Þar fyrer heyred eigi ydrum prophetum, spásagnarmønnum, drauma útleggiurum, dagveliurum og tøfra-mønnum, sem segia til ydar, ad þer skulud ei þióna kongenum af Babylon.

10. Þviad þeir spá ydur lygar, so ad þeir flyte ydur langt í burt úr ydru lande, so þad eg útreke ydur, og þer glatest.

11. Þviad hver sú þiód sem gefur sinn háls under ok kongsins af Babylon, og þiónar hønum, þá þiód vil eg láta í sinn lande vera, so ad hún bygge og búe þar inne, seger Drottinn.

12. Og eg talade allt þetta til Zedechia, kongsins Juda, og sagde: gefed ydra hálsa under oked kongsins af Babylon, og þióned hønum og hans fólke, þá skulud þer lifenu hallda.

13. Hvar fyrer viled þer deya, þú og þitt fólk, fyrer sverde, hungre og drepsótt, so sem þad Drottinn hefir talad yfer þvi fólke, sem eigi vill þióna kongenum af Babylon.

14. Þar fyrer skulud þer eigi hlyda þeirra prophetanna ordum sem segia til ydar: þer munud eigi þióna kongenum af Babylon, þviad þeir spá ydur falskt.

15. Og eg hefe eigi sendt þá, seger Drottinn, helldur spá þeir falskt í mínu nafne, uppá þad eg útreke ydur, og þer tortínest med þeim prophetunum sem spá ydur.

16. Og til þeirra prestanna, og til alls folksins talade eg, og sagde: so seger Drottinn: hlyded eigi ordum ydvarra spámanna, sem spá fyrer ydur, og segia: siáed! þau-

kerenn úr húse Drottins munu snarlega koma hingad aptur frá Babylon, þviad þeir spá falskt fyrer ydur.

17. Hlyded þeim eigi, helldur þiéned konungenum af Babylon, so munud þer life hallda. Hvar fyrer skal þó verda í eyde þesse stadur?

18. Seu þeir prophetar, og hafe þeir ord Drottins, þá láted þá bidia þess af Drottne Zebaoth, ad þau kerenn sem epter eru ordenn í húse Drottins, og í húsenu konungsins Juda, og í Jerusalem, skulu eigi einnenn burt flútt verda til Babylon.

19. Þvi so seger Drottinn Zebaoth, af þeim stólpunum, og af hafenu, af stólunum, og af kerunum sem enn eru epter ordenn í þessum stad.

20. Þau ed Nabochodonosor, konungurenn af Babylon, hafde eigi í burt, þá ed hann burtflútte Jechoniam, son Joakims, konungenn Juda, frá Jerusalem til Babylon, og alla höfdingia Juda og Jerusalem.

21. Þviad so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: af þeim kerunum sem enn eru epter ordenn, í húse Drottins, og í húse konungsins af Juda, og Jerusalem.

22. Þaug skulu burtflútt verda til Babylon, og vera þar, allt til þess dags, ad eg vitia þeirra, seger Drottinn, og til þess, ad eg læt flytia þau upp hingad aptur til þessa stadar.

## 28. Capitule.

1. Og á þvi sama áre, í upphafe kongsrikes Zedechia, konungsins Juda, á þeim fimmta mánudenum hins fiorda ársins, talade Ananias, Azurs sonur, prophetenn af Gibion, til mín, í húse Drottins, í náveru prestanna, og alls fólksins, og sagde.

2. So seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: eg hefe ísundurbróted þad oked kongsins af Babylon.

3. Og ádur enn tvö ár eru umlidenn, þá vil eg láta aptur flytia til þessa stadar, kerenn úr húse Drottins, sem Nabuchodonosor, konungurenn af Babylon, tók burt af þessum stad, og flútte til Babylon.

4. Þar med einnenn Jechoniam, son Joakims, konunginn Juda, med öllum þeim ödrum, sem herleidder voru af Juda, sem burtflútter eru til Babylon, þá vil eg og aptur flytia til þessa stadar, seger Drottinn, þviad eg vil ísundurbrióta þad oked konungsins af Babylon.

5. Þá sagde Jeremias prophete Anania propheta, í vidurvist prestanna, og alls fólksins, sem ad stódu í húse Drottins,

6. Og sagde: Amen! Drottinn hann gere so; Drottinn hann stadfeste þín ord, sem þú hefir spád, ad hann vile aptur flytia frá Babylon þau kerenn úr huse Drottins, til þessa stadar, med þeim öllum, sem herleidder eru.

7. Enn þó heyr þú einnenn þetta ord, sem eg tala fyrer þínum eyrum, og eyrum alls folksins.

8. Þeir prophetarner, sem vered hafa fyrer mig og þig, fyrer langre æfe, þeir hafa spád ímóte mörgum löndum, og miklum kongaríkium, af bardögum, af ógæfu, og af drepsottum.

9. Enn nær ed einnhver prophete spáer fyrerút af fride, hann má þeckia af þvi, hvert Drottinn hefir sendt hann í sannleika, þá hans ord uppfyllast.

10. Þá tók prophetenn Ananías oked af hálsenum prophetans Jeremia, og ísundurbraut það.

11. Og Ananías sagde í vidurvist alls folksins: so seger Drottinn: líka so þá vil eg ísundurbrióta oked Nabuchodonosors, konungsins af Babylon, ádur enn þad tvø ár eru lidenn, af hálsenum alls fólksins. Og Jeremias prophete geck í burt sína leid.

12. Enn ord Drottins skede til Jeremia, epter þad ad Ananías prophete hafde ísundurbroted oked af hálse Jeremia propheta, og sagde:

13. Gack þú burt, og seg til Ananíam: so seger Drottinn: þú hefir ísundurbróted þad treoked, so ger nú eitt járnok í stadenn þess.

14. Þvi so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: eg hefe heingt eitt járnok á hálsana alls þessa folks, hvar med þeir skulu þióna Nabochodonosor, kongenum af Babylon, og hønum skulud þer þióna, þviad eg hefe og einnenn gefed hønum þau villedyrenn.

15. Og Jeremias prophete sagde til Ananiam propheta: heyr þú Anania! Drottinn hefir ei útsendt þig, og þú hefir gert þad, ad þetta folk þad treyster uppá lygar.

16. Þar fyrer seger Drottinn so: siá þú! eg vil taka þig burt af jørdunne, á þessu áre skalltu deya, þviad þú burt snerer þeim frá Drottne med þinne ordrædu. So deyde sá prophetenn Ananias, á þvi sama áre, á þeim hinum siøunda mánude.

## 29. Capitule.

1. Þesse eru þau ordenn í brefenu, sem Jeremias prophete sende frá Jerusalem, til þeirra epterblifnu øldunganna, sem burt voru flutter, og til prestanna og prophet-anna, og til alls fólksins, sem Nabuchodonosor hafde burtflutt til Babylon.

2. (Epter þad ad kongurenn Jechonias, og drottningenn, med herberges sveinunum, og høfdingiunum Juda, og þeim af Jerusalem, med þeim tre smidum, og hagleiksmønnum af Jerusalem, voru nú í burtu.)

3. Med Eleasa, syne Saphans, og Gemaria, syne Hilkia, hvera Zedechias, kongurenn Juda, sende í Babylon, til Nabochodonosors, konungsins af Babylon, og sagde:

4. So seger Drottinn Zebaoth Gud Israels, til allra þeirra hinna herteknu, sem eg hefe burtflytia láted frá Jerusalem til Babylon.

5. Bygged upp húsenn í hverium þer kunned ad búa; planted alldingarda, af þeim þer kunned ávaxtarens ad neyta.

6. Taked ydur eigennkonur, og geted syne og dætur; taked sonum ydrum eigennkonur, og gefed menn dætrum ydrum, so ad þau gete syne og dætur; fiølged ydur þar, so ad þer seud eigi allfáer.

7. Leited hins besta þess stadar, til hvers eg læt burtflytia ydur, og bided fyrer hønum, til Drottins, þvi nær ed þad vegnar hønum vel, so vegnar þad og ydur vel.

8. Þvi so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: láted ei þá propheta, og spásagnar menn, sem þar hiá ydur eru, meiga svíkia ydur, og hlyded eigi ydrum draumum, sem ydur dreymer.

9. Þviad þeir spá ydur falskt í mínu nafne, eg hefe ei udsendt þá, seger Drottinn.

10. Þviad so seger Drottinn: nær ed siøtíu ár eru fullkomnud í Babylon, þá eg vil mitt hid nád-

arsamlega ord uppvekia yfer ydur, ad eg flyte ydur aptur til þessa stadar.

11. Þviad eg veit vel hvern þanka eg hefe til ydar (seger Drottinn) sem er, þanka fridarens, enn eigi pínunnar, so ad eg skal gefa ydur þá ending, sem þer vænted epter.

12. Og þer munud ákalla mig, og gánga burt og bidia mig, og eg vil bænheyra ydur.

13. Þer munud mín leita, og mig finna, þvi ef þer leited mín af ollu hiarta,

14. Þá vil eg láta finna mig af ydur, seger Drottinn, og eg vil umsnúa ydar fangelse, og samansafna ydur frá allsháttudu fólke, og frá ollum þeim stodum, til hverra ad eg hefe burtskufad ydur, seger Drottinn: og eg vil flytia ydur aptur til þessa stadar, hvadann eg let burtflytia ydur.

15. Þvi þer meined þá, ad Drottinn hafe uppvaked ydur propheta í Babylon.

16. Þviad so seger Drottinn um kann kongenn sem situr á Davids stóle, og um allt þad folk, sem ad bygger í þessum stad, sem er um ydra brædur, sem eigi eru burtflútter med ydur í herleidingena.

17. Já! so seger Drottinn Zebaoth: siá þú! eg vil senda sverd, hungur og drepsott á medal þeirra, og eg vil breyta vid þá sem vid vondar fíkiur, þær ed manne er vidbiódur vid ad eta.

18. Og á bak til vid þá vil eg vera med sverde, hungre og drepsott, og eg vil þá eigi vera láta í neinu konungaríke á jordu, so ad þeir skulu verda ad bolvan, undrum, hádung, og ad spotte, á medal allra þióda, til hverra ad eg mun útskúfa þeim,

19. Af því, ad þeir hlýddu eigi mínum ordum, seger Drottinn, eg, hver ed sende alla tíma mína þenara prophetana til ydar, enn þer villdud eigi heyra, seger Drottinn.

20. Enn þer aller sem hertekner erud burtflutter, þá sem eg hefe láted burtfara frá Jerusalem til Babylon, heyred þer ord Drottins!

21. So seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels, ígegn Achab, syne Kolaia, og ígegn Zedechia, syne Maseia, sem spá ydur lygar under mínu nafne: siá þú! eg vil gefa þá í hendur Nabuchodonosor, kongsins af Babylon, hann skal láta slá þá fyrer ydrum augum.

22. So ad af þeim somu skal greast ein bolvan, á medal allra fangenna úr Juda, sem eru í Babylon, og segia: Drottenn gere þer líka sem Zedechia og Achab, hvera kongurenn í Babylon let steikia á ellde.

23. Fyrer þad þeir hofdu framed eina heimsku í Israel, og drigt hóraner med odrum konum, og predikad falskt í mínu nafne, hvad eg hafde eigi boded þeim; þetta veit eg, og votta þad, seger Drottinn.

24. Og á móte Semaia af Nehalam skalltu segia.

25. So seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: af því, ad þú útsender bref ed under þínu nafne, til alls fólksins, þess sem er í Jerusalem, og til kennemannsins Sephania, sonar Maseia, og til allra prestanna, og segier.

26. Drottinn hefir sett þig til prests, í stadenn Joiada prests, so ad þer skulud vera adsióndarmenn í húse Drottins, yfer ollum sinnulausum og spásagnarmonn-

um, so ad þú legger þá í fángelse og stock.

27. Enn hvar fyrer straffar þú nú eigi Jeremiam af Anathoth, sem spáer fyrer ydur?

28. Af þvi hann hefir sendt bod til vor í Babylon, og láted segia oss, ad þad skule enn lenge vara, bygged upp hús, sem þer kunned ad búa, og planted alldingarda, so ad þer eted ávoxtenn þar af.

29. Þviad Zephanias prestur las þad sama bref, og let Jeremiam propheta heyra þad.

30. Þar fyrer þá skede ord Drottins til Jeremia, og sagde:

31. Sended hedann til allra þeirra sem hertekner eru, og láted segia þeim. So seger Drottinn ímóte Semaia, af Nehalam, þar fyrer, ad Semaia spáer fyrer ydur, og eg hefe þó eigi sendt hann, og hann gerer þad, ad þer seted ydart traust uppá lygar,

32. Þar fyrer seger Drottinn so: siá þú! eg vil heimsækia Semaia af Nehalam, ásamt med hans sæde, so ad engenn af hans skal vera á medal folks þessa; hann skal eigi siá þad hid góda, sem eg vil gera mínu fólke, seger Drottinn; þviad hann hefir fráfnúed þeim frá Drottne med sínum ordum.

## 30. Captiule.

1. Þetta er þad ord sem skede af Drottne til Jeremia.

2. So seger Drottinn Gud Israels: skrifa þú þer oll þau ord í eina bók, sem eg tala til þín.

3. Þviad siá þú! sá tíme kemur, seger Drottinn, ad eg vil snúa herleidingunne míns fólks, bæde Israels og Juda, seger Drottinn, og eg vil flytia þá inn aptur í þad land, sem eg gaf þeirra forfedrum, so ad þeir skulu þad eignast.

4. Enn þesse eru þau ordenn sem Drottinn talade um Israel og Juda.

5. Þviad so seger Drottinn: ver heyrum raustena skelfingarennar, ad þar er eigi utann hrædsla, og engenn fridur.

6. Enn spyred ad þvi, og siáed, hvert ad karlmadur meige barn fæda? hvernenn gengur þad þá til, þad eg se alla menn hafa sínar hendur lagdar ad sínum lendum, so sem konur í barnssott, og oll andlit eru so fol?

7. Þad er sannarlega einn mikell dagur, og hans líke var eigi, og er einn hormungar tíme í Jacob, þó skal honum þar útaf hiálpad verda.

8. Enn þad skal ske á þeim sama tíma, seger Drottinn Zebaoth; ad eg vil sundurbrióta hans ok af þínum hálse, og ísundurslíta þín bond, so ad hann skal eigi meir þióna annarlegum þar út í.

9. Helldur Drottne Gude þeirra, og so þeirra konunge David, hvern eg vil uppveckia þeim.

10. Þar fyrer vert þú óhræddur þú minn þiónn Jacob, seger Drottinn, og hrædst ei þú Israel. Þviad siá þú! eg vil hiálpa þer úr fiarlægum londum, og þínu sæde af þeirra herleidingar lande, so ad Jacob skal aptur koma, í fride lifa, og gnægd hafa, og engenn skal skelfa hann.

11. Þviad eg em hiá þer, seger Drottinn; ad eg vil hiálpa þer. Þvi eg vil einn enda gera vid alla þá heidingia, til hverra ad eg hefe útdreift þer, enn vid þig vil eg eigi einn enda gera, enn aga vil eg þig med máta, so ad þú hallder þig eigi saklausann.

12. Þviad so seger Drottinn:

þin lemstur eru ein øruæntanleg
illska, og þín sár eru ógrædande.
13. Þín málefne ræker engenn,
so hann binde um þaug, engenn
kann þig ad græda.
14. Aller þiner ástviner þeir for-
gleyma þer, skeyta eigi um þad.
Eg hefe sleiged þig líka sem ad eg
skyllde slá einn óvin, med miskun-
arlausre hirtingu, vegna þinna
mikellra misgerda, og fyrer þinna
sterkra synda saker.
15. Hvar fyrer ber þú þig illa
yfer þinne skadseme, og yfer þínum
øruæntanlegum illsku harmkvæl-
um? enn eg hefe þó gert þetta veg-
na þinna stóru misgerda, og fyrer
þinna sterkra synda saker.
16. Þar fyrer skulu aller þeir,
sem þig hafa eted, uppetner verda,
og aller þeir, sem ad þer hafa
þreyngt, skulu aller hertekner ver-
da, og þeir ed þig hafa rænt, skulu
rænder verda, og aller þeir sem þig
hafa ruplad, ruplader verda.
17. Enn þig vil eg aptur heil-
brigda, og þín sár græda, seger
Drottinn, af því þú kallast hin út-
rekna, og Zion er sú, sem engenn
spyr epter.
18. So seger Drottinn: siá þú!
eg vil snúa herleidingunne tialld-
búdanna Jacobs, og miskunsam-
legur vera yfer hans bústødum, og
stadurenn skal upp aptur byggiast
á sinne hæd, og musiered skal stan-
da epter sínum skamte.
19. Og lofsøgn og gledennar
saungur skal þadann útganga;
þviad eg vil fiølga þá, enn eigi
minka, og eg vil gera þá þeidarleg-
re, enn ei minne háttar.
20. Þeirra syner skulu vera líka
sem ádur fordum, og þeirra søfnud-
ur skal lucku hafa fyrer mer, þviad
eg vil sækia þeim alla þá sem þana
þvinga.
21. Og hennar høfdingiar sku-
lu út af þeim frammkoma, og henn-
ar stiornare skal útganga af þeim,
og hann skal hallda ser til mín,
því hver er hann sem adhyllest mig
med sinu viliugu hiarta? seger
Drottinn.
22. Og þer skulud vera mitt fólk,
og eg vil vera ydar Gud.
23. Siá þú! þar mun koma einn
stormur Drottins, med grimmd;
einn hrædelegur stormur mun falla
yfer høfud þeirra hinna óguðlegu.
24. Þviad grimmdar reide
Drottins mun eigi afláta fyrr, enn
hann gerer þad, og því til vegar
kemur sem hønum byr í sinne. Á
þeim sídarsta tíma skulud þer fá
soddann ad formerkia.

## 31. Capitule.

1. Á þeim sama tíma, seger
Drottinn: vil eg vera Gud alls
Israels slektes, og þeir skulu vera
mitt fólk.
2. So seger Drottinn: þad folk
sem epter er vorded fyrer sverdenu,
þad hefir funded nád í eydemørk-
enne: Israel fer burt til sinnar
hvíldar.
3. Drottinn byrtest mer óleingd-
ar; eg hefe og alla tíma elskad þig,
þar fyrer hefi eg ladad þig ad mer
af skærre miskunseme.
4. Nú vel! eg byggi þig upp
aptur, so ad þú skallt heita upp-
byggd, þú jungfrú Israel, þú skallt
enn nú fara med gledennar bum-
buslátt, og útganga í dansenn.
5. Þu skallt planta víngarda
aptur ad nyu á fiøllum Samarie,
planta munu menn, og í pípur
blása.
6. Þviad sá tíme mun enn koma,
ad vardmennerner á Ephraims
fialle munnu kalla, støndum upp,

og látum oss ganga upp til Zion, til Drottins vors Guds!

7. Þviad so seger Drottinn: kalled yfer Jacob med glede, og fagned yfer þvi høfdenu medal heidingianna: kalled hátt, hrósed, og seged: Drottinn! hiálpa þú þínu fólke, sem epter er orded í Israel!

8. Siá þú! eg vil flytia þá út af nordurlandenu, og eg vil samansafna þeim frá jardarennar enda, bæde blindum, høltum, óléttum, og sængar konum, so ad þeir skulu koma hingad aptur med miklum hóp.

9. Þeir munu koma grátande, og bidiande, so vil eg segia þeim leid; eg vil leida þá í hiá vatnslækunum á slettum veige, so ad þeir steyte sig ei, þviad eg em Israels fader, og Ephraim er minn frumgetenn sonur.

10. Heyred, þer hiner heidnu! ord Drottins, og kunngered þad í fiarlægd á eyunum, og seged: sá sem í sundurdreift hefir Israel, hann mun einnenn samansafna hønum aptur, og hann mun vardveita hann, so sem einn hyrder sína hiørd.

11. Þviad Drottinn mun frelsa Jacob, og leysa hann út af hende hins vellduga.

12. Og þeir munu koma og gledia sig á hædunum til Zion, og þeir munu samanflyckiast í hóp, til þeirra giafanna Drottins, sem er, til korns, víns, vidsmiørs, og ungra sauda og nauta, so ad þeirra sáler munu vera líka sem einn vatnsríkur ártagardur, og skulu ei framar meir angrader verda.

13. Þá munu meyarnar gladar vera í dansenum, þar med æsku mennerner, og hiner gømlu hver med ødrum. Þviad eg vil snúa þeirra sorg í glede, og hugsvala þeim og gledia þá, epter þeirra hørmungar.

14. Og eg vil gera prestanna hiarta fúllt af glede, og mitt fólk skal hafa allskonar nægd, af mínum gáfum, seger Drottinn.

15. So seger Drottinn: menn heyra kveinunarlegt hliod, og beiskann grát, á hædunum, Rachel grætur yfer sínum børnum, og vill ei huggast láta yfer sínum børnum, þviad þad er útgert um þau.

16. Enn so seger Drottinn: lát þitt hróp og grát, og tára føllenn þinna augna, þviad þitt erfide skal vel launad verda, seger Drottinn. Þeir skulu aptur koma af þvi óvina landenu.

17. Og þiner epterkomendur hafa margs gods ad vænta, seger Drottinn; þviad þín børn skulu aptur koma í sín landamerke.

18. Eg hefe vel heyrt hvernenn þad Ephraim klagar sig, þú hefir agad mig, eg em og einnenn agadur, so sem einn ótamdur kálfur. Snú þú mer; þá er mer snúed, þviad þú Drottinn ert minn Gud!

19. Þá eg um snerest, bætta eg mig. Þviad epter þad eg tók ad vitkast, sló eg á mínar lendar, þviad eg em til skammar vordenn, og stend riódur af óvirdingu, þviad eg hlyt ad lída þær hádungar míns úngdoms.

20. Er Ephraim ei minn dyrmætur sonur, og mitt elskulegt barn? Þviad eg minnunst enn nú vel á þad, hvad eg sagde til hans: þar fyrer sundurbrotnar mitt hiarta til hans, so ad eg hlyt hønum miskunsamur ad vera, seger Drottinn.

21. Reis þú þer upp grafar teikn; settu þer upp sorgar merked; og set þitt hiarta á þá hinu trodnu veige-

ne, sem eg hefe á genged. Þú jungfrú Israel! snú þú aptur, snú þer aptur til þessara þinna stada.

22. Hverſu leinge þá villtu ganga þá villu veigena, þú hin fráfallna dotturenn? Þviad Drottinn mun skapa nockud nytt í landenu, kvinnann mun umkringia manninn.

23. So seger Drottinn Zebaoth, Guð Israels: menn muun enn tala þesse ord aptur í landenu Juda, og í þess stødum, þá ed eg mun snúa þeirra herleidingu, Drottinn hann blesse þig, þú rettlætiſins bustadur, þú hid heilaga fiall!

24. Og Juda med øllum sínum stødum, skal búa þar inne, þar med einnenn akurkarlar, og þeir sem hiardir gæta.

25. Þviad eg vil endurnæra þær þreyttu sálernar, og sedia þær enu sorgbitnu sáler.

26. Þar fyrer vaknade eg, og leit upp, og hafde sofed so vært.

27. Siá þú! sá tíme kemur, seger Drottinn, ad eg vil nidur sá hús Israel, og húsid Juda, bæde med menn og fenad.

28. Og líka so sem eg vakte yfer þeim, til ad uppræta, sundurslíta, af ad brióta, fordiarfa, og til ad plága, so vil eg og vaka yfer þeim til ad uppbyggia, og ad gródurſetia, seger Drottinn.

29. Á þeim sama tíma munu menn eigi framar meir segia: fedurner hafa eted þad beiska vínbered, og barnanna tennur eru sliofar vordnár.

30. Helldur skal hver einn deya fyrer sinna misgerda saker, og hver madur sem etur beiskt vínber, hans tennur skulu sliofgast.

31. Siá þú! sá tíme kemur, seger Drottinn, þá vil eg gera einn nyann sáttmála vid Israels hús, og vid húsed Juda.

32. Eigi so sem sá sáttmálenn var, sem eg gerde vid fedur þeirra, þá ed eg tók þá vid hønd, og leidde þá út af Egyptalande, hvern sáttmála þeir hafa eigi halldeb, og eg hlaut ad þvinga þá, seger Drottinn.

33. Helldur skal þetta vera sá sáttmálenn, sem eg vil gera vid Israels hús her epter, seger Drottenn, eg vil gefa mit løgmál í þeirra hiørtu, og innskrifa þad í þeirra hugskot, og þeir skulu vera mitt folk, so vil eg vera þeirra Gud.

34. Og engenn mun læra annann, og ei einn brodurenn annann, segiande: þecktu Drottinn; helldur skulu þeir aller, bæde smáer og storer, þeckia mig, seger Drottinn, þviad eg vil fyrergefa þeim þeirra misgerning, og alldrei framar í minne leggia þeirra synder.

35. So seger Drottinn: sá ed sólena gesir deigenum til upplysingar, og tungled og stiørnunnar epter þeirra gange, nóttenne til liosſ, hann sem hrærer siófar hafed, so ad þess bylgiur upp þióta, Drottinn Zebaoth er hans nafn.

36. Nær ed soddann tilskipan legst af fyrer mer, seger Drottinn; þá skal einnenn aftakast Israels sæde, so ad þad skal eigi meir vera eitt folk fyrer mer æfenlega.

37. So seger Drottinn: nær ed madur kann ad mæla himeninn þar uppe, og rannsaka grundvøllenn jardarennar, þá vil eg og burtkasta øllu Israels sæde, fyrer allt þad sem þeir hafa gert, seger Drottinn.

38. Siá þú! sá tíme skal koma, seger Drottinn; þad sá stadurenn Drottins skal uppbygdur verda, frá turnenum Hananeels, allt til hyrningar portsins.

39. Og sá mælestreingurenn skal ganga vidara út, hiá þvi hinu

sama, allt inn til Garebs hædar, og snúa ser so til Goath.

40. Og allur sá dalurenn lík-anna og øskunnar, med øllum ak-renum, allt til lækiarens Kidron, allt inn til þess hornsins á hesta-portenu, mót austrenu, þá skal ve-ra Drottne helgad, so ad þad skal alldreige meir ofanrifed, ellegar niburbróted verda.

## 32. Capitule.

1. Þetta er þad orded sem skede til Jeremia af Drottne, á því tíma-da áre Zedechia konungsins Juda, hvert ad er þid átianda ár Nabu-chodonosor.

2. (Á þann tíma lá í kringum Jeru-salem herlided konungsins af Ba-bylon,) enn prophetinn Jeremias lá þá fangenn í forgardenum myr-kastofunnar, í hiá húse konungs-ins Juda.

3. Þar ed Zedechias, kongurenn Juda, hafde láted inne lykia hann, og sagt, hvar fyrer spáer þú, og seger, so seger Drottinn: siá þú! eg vil gefa þennann stad í hendur konungsins af Babylon, og hann skal yfervinna hann.

4. Og Zedechias, konungurenn Ju-da, skal eigi umflúed geta úr hønd-um þeirra Chaldea, helldur vil eg gefa hann í hendur kongsins af Babylon, so ad hann skal tala munnlega vid hann, og þad hann skal siá hann med augum sínum.

5. Og hann mun burt flytia Zedechiam til Babylon, þar skal hann og vera, þangad til ad eg vitia hans, seger Drottinn: því þó ad þer strídeð á móte þeim Chalde-is, þá skal þad þó eigi luckast ydur.

6. Og Jeremias sagde: ord Drottins er sked til mín, og seger.

7. Siá þú! Hanameel, sonur Sallum, sødurbrodur þíns, kemur til þín, og seger: kære! kaup þú minn akur í Anathoth. Þviad þú ert nánastur ættaradur til ad kau-pa hann.

8. So kom Hanameel, brodur-sonur fødur míns, til mín (so sem þad Drottinn hafde sagt) fyrer forgardenn myrkastofunnar, og sagde til mín: kære! kaup þú minn akur í Anathoth, sem liggur í Ben-jamins lande, þviad þú hefir erfda-rettenn þar til, og þú ert þinn nán-aste: kære! kaup þá hann. Þá formerkte eg, ad þad var ord Drott-ins.

9. Og eg keypte akurenn af Hanameel, brodur syne fødur míns, í Anathoth og vog þonum út peninga, sió Siclos, og tíu silf-ur peninga.

10. Og skrifade eitt bref, og innsiglade þad, og tók vitnisbúrde þar til, og eg vog peningana út í meta skálum.

11. Og eg tók þad ed innsigla-da kaupbrefed til mín, epter rette og sidvenju, og so eina opna út-skript.

12. Og eg fekk þad sama mitt kaup bref Baruch, syni Nerias, sonar Mahasia, ad hiáveranda Ha-nameel, míns sødurbrodur syne, og þeim vottum sem stódu í kaup brefenu, og í náveru allra þeirra Gydinga sem biuggu hiá for-gardenum myrkastofunnar.

13. Og eg baud Baruch fyrer þeirra augum, og sagde.

14. So seger Drottinn Zeba-oth, Gud Israels: tak þesse bref, þetta þid innsiglada kaup brefed, og þá hina opnu útskriptena, og legg þau í eitt leirker, so ad þau mege lenge vardveitast.

15. Þviad so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: enn skulu

menn kaupa sier hús, akurlønd og víngarda, í þessu lande.

16. Og þá ed eg hafde afhendt Baruch, syni Nerias, þetta kaupbref, bad eg til Drottins og sagde:

17. O Drottinn! Drottinn! siá! þú gerder himen og jørd fyrer þinn hinn mikla krapt, og fyrer þinn útrettann armlegg, og þar er engenn hlutur ómøgulegur fyrer þer.

18. Þú sem gerer miskunseme vid margar þusunder, og endurgelldur illsku fedranna, í barmenn þeirra barna epter þá, þú hinn mikle og øfluge Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn.

19. Mikell af ráde, og máttugur af gerninge, og þín augu standa openn yfer øllum vegum mannanna barna, so ad þú gefer hvørium epter sínne verkan, og epter ávextenum síns athæfes.

20. Þú sem gert hefir tákn og stormerke í Egypta lande, allt til þessa dags, bæde vid Israel, og (adra) menn, og gerder þer eitt nafn, so sem þad er nú þennann dag.

21. Og þú flútter þitt folk Israel út af Egyptalande fyrer tákn og stormerke, fyrer eina vollduga hønd, fyrer útrettann armlegg, og fyrer storar skelfingar.

22. Og gafst þeim þetta land, hvert þú hafder svared þeirra forfedrum, ad þú villder gefa þeim eitt land í hvøru ad flytur miolk og húnang.

23. Og þá er þeir komu þar inn, og eignudust þad, þá hlyddu þeir eigi þinne raust, og gengu eigi helldur epter þínu løgmale, og þeir yfergáfu allt þad, sem þu baudst þeim ad gera, þar fyrer letstu og einnenn alla þessa ógæfu koma yfer þá.

24. Siá þú! þesse stadur er umkringdur, so þad hann skuley ferunnenn og uppgefenn verda í hendur þeirra Chaldea, sem strída á móte hønum, fyrer sverde, hungre og drepsott; og sem ad þú hefir sagt, so geingur þad nú til, þad ser þú.

25. Og þú seger til mín, Drottinn! Drottinn! kaup þú einn akur fyrer peninga, og haf votta þar vid, enn stadurenn skal þó uppgefast í hendur þeirra Chaldeiskú.

26. Og ord Drottins þad skede til Jeremia, og sagde:

27. Siá þú! eg Drottinn er einn Gud alls holldz; skyllde mer nockud ómøgulegt vera?

28. Þar fyrer seger Drottinn so: siá þú! eg gef þennann stad í hendur Chaldea, og í hønd Nabuchodonosors konungsins af Babylon, hann skal yfervinna hann.

29. Og þeir Chaldei, sem strída á móte þessum stad, munu koma her inn, og kveikia eld í hønum, og brenna hann upp, og øll þau húsenn, ofann á hvørra ræfrum er þeir báru reykelse fyrer Baal, og offrudu annarlegum gudum dryckiaroffre, so ad þeir reittu mig tilreide.

30. Þvíad Israels børn og Juda børn, hafa alla tíma, þegar frá þeirra æsku alldre, gert þad sem mer líkar illa, og Israels børn hafa reitt mig tilreide med sínum handaverkum, seger Drottinn.

31. Þvíad þadann frá ad þesse stadur var uppbygdur, hafa þeir gert mig reidann og heiptarfullann, allt til þessa dags, so ad eg hlyt burt ad skufa hønum frá mínu auglite.

32. Fyrer allra illgerda saker Israels barna, og Juda barna, sem þeir hafa gert, ad þeir reittu mig til reide. Þeir siálfer, þeirra kongar, høfdingiar, prestar prophetar,

og þeir sem búa í Juda og Jerusalem,

33. Hafa snúed bakenu vid mer, og eigi andlitenu, þó eg lete alla tíma kenna þeim, enn þeir villdu eigi heyra ne bæta sig.

34. Þar med hafa þeir sett sínar svívirdíngar í það húsed sem af mer hafde nafn, so ad þeir saurgudu það.

35. Og þeir hafa uppbygt hædernar Baals í Ben Hinnoms dal, so ad þeir uppbrenndu sonu sína og dætur fyrer Moloch, hvad eg hafde eigi boded þeim, og það kom alldrei í mitt sinne, ad þeir skylldu gera soddann svívirding, hvar med ad þeir komu Juda so til ad syndgast.

36. Og nú þess vegna, talar Drottinn Gud Israels so um þennann stad, af hverum þer seged, ad hann skule fyrer sverde, hungre og drepsott yfergefenn verda í hendur kongsins af Babylon.

37. Sjá þú! eg vil safna þeim úr øllum løndum, sem eg hefe burtkastad þeim, í minne reide og grimmd, og ómiskunseme, og eg vil flytia þá hingad aptur til þessa stadar, so ad þeir skulu ugglauser búa.

38. Og þeir skulu vera mitt folk, so vil eg vera þeirra Gud.

39. Og eg vil gefa þeim eitt samhalldid hiarta og athæfe, so ad þeir skulu óttast mig alla sína lífdaga, so ad það skule þeim vel vegna og þeirra børnum epter þá.

40. Og eg vil gera einn eylífann sáttmála vid þá, so eg vil ei þvi linna ad gera þeim tilgóda, og eg vil gefa þeim mína hrædslu í hiartad, so ad þeir skulu eigi burtvikia frá mer.

41. Og það skal verd mín glede, ad eg skal þeim godt gera, og trúlegá vil eg gródursetia þá í þessu lande, af øllu hiarta, og af allre sálu.

42. Þvíad so seger Drottinn: líka sem það eg hefe alla þessa hina miklu ógæfu láted koma yfer þetta folk, so vil eg og láta allt godt koma yfer þá, það sem eg hefe talad til þeirra.

43. Og þar skulu ennnú kaupast akrar í þessu lande, um hvert ad þer seged: það mun í eyde liggia, so ad þar mun hverke folk ne fenadur inne vera, og það skal gefast í hendur þeirra Chaldeiska.

44. Þó skulu menn kaupa samt ákurlønd fyrer peninga, og það sama brefa, innsigla og vitna í Benjamins lande, og kringum Jerusalem, og í stødunum Juda, í stødunum á fiallbygdunum, í stødunum í dølunum, og í þeim stødunum mót sudrenu, þvi eg vil snúa þeirra herleidingu, seger Drottinn.

## 33. Capitule.

1. Og ord Drottins það skede til Jeremiam í annad sinn, þá hann var ennnú inne luktur í forgardenum myrkastofunnar, og sagde:

2. So seger Drottinn, sem slíkt gerer, verkar og frámmkvæmer, Drottinn er hans heite.

3. Kalla þú til mín, þá vil eg svara þer, og eg vil kunngera þer mikla og megtuga hlute, sem þú veitst eigi.

4. Þvíad so seger Drottinn, Gud Israels, af husunum þessa stadar, og af húsunum kongsins Juda, sem nidur eru brotenn, ad gera af hervirke til varnar.

5. Og af þeim sem eru her innkomner ad strída á móte þeim Chaldeis, so ad þeir uppfylle þá sømu

med dauda líkame, hvera eg vil íhelslá í minne reide og heiptar grimd, þviad eg hefe byrgt mína ásionu fyrer þessum stad, fyrer sak er allra þeirra illsku.

6. Siá þú! eg vil græda þá og heilbrigda gera, og eg vil auglysa þeim yfergnæfanlegann frid og trúskap.

7. Þviad eg vil snúa herleidingunne Juda, og herleidingunne Israels, og eg vil uppbyggia þá so sem frá upphafe.

8. Og eg vil hreinsa þá út af øllum misgerdum, medur hverum þeir hafa syndgast á móte mer, og eg vil fyrergefa þeim alla misgerninga, medur hverum þeir hafa syndgast, og yfertródslu gjørt, á móte mer.

9. Og þad skal vera mer eitt gledelegt nafn, frægd og forprís, á medal allra heidenna þióda á jordu, nær ed þeir fá ad heyra allt þad hid góda sem eg gere þeim, so ad þá mun furda þad, og ægia allur sá gode, og allur sá fridur sem eg vil gefa þeim.

10. So seger Drottinn, í þessu takmarke, af hveru þer seged: þad er í eyde, med því ad þar eru hverke menn ne fenadur í þeim stødunum Juda, og á þeim strætunum til Jerusalem (sem so eru í eyde løgd, ad þar er hvorke folk neitt, ne borgar menn, ne fenadur inne.)

11. Þá skal þó samt þar inne heyrast aptur hliomurenn af gledenne, og unadsemdenna, raustenn brúdgumans og brúdarennar, og so þeirra raust sem segia: þacked þer Drottne Zebaoth, þad hann er so nádarsamlegur, og þad hann gerer eylíflega til góda, og þeirra sem færa þacklætis offur í húsed Drottins, þviad eg vil snúa herleidingunne landsins, líka sem frá upphafe, seger Drottinn.

12. So seger Drottinn Zebaoth: í þessum stad, sem so er í eyde, ad þar eru hverke menn ne fenadur inne, og í øllum hans stødum, þá skulu samt enn aptur vera hús þeirra hiardar geymslu manna, sem hiørdena fæda.

13. Bæde í þeim stødum á fiallbygduuum, og í þeim stødunum, í dølunum, og í stødunum móte sudrenu, í Benjamins lande, allt umkring Jerusalem, og í þeirra stødunum Juda, þar skulu enn nú aptur hiarder ganga taldar út og inn, seger Drottinn.

14. Siá þú! sá tíme kemur, seger Drottinn: ad eg vil uppvekia þad náduga ord, hvert ad eg hefe talad til hússens Israel, og til hússens Juda.

15. Á þeim sømu døgum, og á þeim sama tíma, vil eg láta David upprenna einn rettlætis kvist, og hann skal vera einn konungur, sem vel mun stiorna, og hann skal uppheffia dómenn og rettvísenn á jørdu.

16. Á þeim tíma skal Juda hólpenn verda, og Jerusalem búa uggtaust, og þeir munu kalla hann, Drottinn, sem er vort rettlæte.

17. Þviad so seger Drottinn: þar skal alldrei bregdast David einn madur, sem skal sitia á þeim stólnum hússens Israel.

18. Líka so skal þad alldreige bregdast, ad þar skulu vera prestar og Levitar fyrer mer, sem gera brenneoffur, og upptendra matoffur, og slátra offrenu eylíflega.

19. Og ord Drottins þad skede til Jeremia, og sagde:

20. So seger Drottinn: nær ed minn sáttmála tekur til ad bregda

vid dag og nótt, so ad þar verde ei dagur og nótt á sínum tíma,

21. Eins líka so þá skal minn sáttmále þrióta vid minn þión David, so ad hann hafe eigi einn son til konungs á sínum stóle, og med þeim Levitunum og prestunum mínum þenurum.

22. Líka sem madur kann eigi ad telia himensins her, ei helldur ad mæla sandenn vid siáfarhafed, eins so vil eg fiølga sæde Davids míns þenara, og þeirra Levitanna sem mér þióna.

23. Og ord Drottins skede til Jeremiam, og sagde:

24. Hefir þú eigi sed hvad þetta folk talar og seger? hvert hefir þó Drottinn burtkastad þeim tveimur kynkvíslum, sem hann hefir útvaled, og lasta mitt folk, líka sem ad skyllde þad eigi framar meir vera mitt folk.

25. So seger Drottinn: halldeg eigi minn sáttmála vid dag og nótt, og þá skickunena himens og jardar.

26. Þá vil eg og einnenn burtkasta sædenn Jacobs, og Davids míns þenara, so ad eg take þá eigi út af þeirra sæde, sem stiórna skulu yfer sæde Abrahams, Isaacs og Jacobs. Þviad eg vil snúa þeirra herleidingu, og þeim miskunsamur vera.

## 34. Capitule.

1. Þetta er þad ord, sem skede af Drottne til Jeremiam, þá ed Nabochodonosor, kongurenn af Babylon, med øllu sínu herlide, og øllum þeim kongaríkium á jørdu, sem under hans vallde voru, og øllu fólke, bardest á móte Jerusalem, og øllum hennar stødum, og sagde:

2. So seger Drottinn, Gud Israels: gack hedann, og tala vid Zedechiam, konungenn Juda, og seig þú hønum: so seger Drottinn: siá þú! eg vil gefa þennann stad í hendur konungsins af Babylon, og hann skal uppbrenna hann med elllde

3. Og þú skallt eigi umflya hans hønd, helldur skallt þú gripenn verda, og gefenn verda í hans hønd, so ad þú skallt siá hann med augunum, og tala munnlega vid hann, og koma til Babylon.

4. So heyr þú þó Zedechia! konungur Juda, ord Drottins: so seger Drottinn um þig; eigi skalltu deya fyrer sverde, helldur skalltu í fride deya.

5. Og so sem menn hafa brennt yfer þínum forfedrum, hinum fyrre kongunum, sem fyrer þig hafa vered, so skulu menn og einnenn brenna yfer þer, og harma þig, æ Herra! þviad eg hefe þad sagt, seger Drottinn.

6. Og Jeremias prophete talade øll þesse ord til Zedechia, konungsins Juda, í Jerusalem.

7. Þá þegar ad herlided kongsins af Babylon tók ad strída mót Jerusalem, og á móte øllum epterblífande stødum í Juda, sem var á móte Lachis og Aseka, þviad þesser voru enn epter á medal þeirra stadanna Juda, so sem þeir hiner sterku staderner.

8. Þetta er þad ord, sem skede af Drottne til Jeremiam, epter þad ed kongurenn Zedechias hafde gert einn sáttmála vid allt fólked í Jerusalem, til ad úthrópa eitt frelsunar ár.

9. So ad hver skyllde gefa sinn þræl, og hver sína ambátt frialsa, sem hann var Ebraiskur, og hún Ebresk, so ad engenn Gydingur skyllde hallda ønnann fyrer eignar þræl á medal þeirra siálfra.

10. Þá hlyddu aller høfdingiar,

og allt fólked, sem under høfdu geuged sodvann sáttmála, ad hver skyllde gefa sinn þræl, og sina ambátt fría, og hallda þá ei meir fyrer eignar þræla, og þeir gáfu þá lausa.

11. Enn þar epterá tóku þeir sig aptur, og heimtu til sin þá þenarana, og þiónustu konurnar aptur, sem þeir høfdu friálsa gefed, og þvingudu þá til, ad þeir hlutu ad vera þrælar og ambátter.

12. Þá skede ord Drottins til Jeremia, af Drottne, og sagde:

13. So seger Drottinn, Gud Israels: eg gerde einn sátmála vid fedur ydra þann tíd eg útleidde þá af Egyptalande, af því þrældoms húse, og eg sagde:

14. Nær ed sio ár eru umlidenn, þá skyllde hver láta sinn brodur friálsann frá ser, sem være Ebreskur, og hefde sellt sig hønum, og þiónad í sex ár. Enn ydrer fedur hlyddu mer eigi, og hneygdu eigi sín eyru.

15. So hafed þer og einnenn snúed ydur í dag, og gerdud þad mer vel þocknadest, þad þer letud boda eitt frelsunar ár, hver vid sinn náunga, og gerded um þad einn sáttmála fyrer mer, í því húsenu sem ad nefndt er epter mínu nafne.

16. Enn þer snerud snøgt aptur, og vanhelgudud mitt nafn, og hver heimte sinn þiónustu mann, og þiónustu konu aptur, sem þer høfdud friálsa gefed, so ad hver skyllde eiga siálfann sig, og þer kuged þá nú, so ad þeir hlióta ad vera ydrer þrælar, og ambátter.

17. Þar fyrer seger Drottinn so: þer hlyddud mer eigi, so ad þer úthrópudud eitt frelsunar ár, hver sínum brodur, og sínum náunga, siá þú! so úthrópa eg (seger Drottinn) ydur eitt frelsunar ár, til sverdsins, til drepsottarennar, til hungursins, og eg vil eigi láta ydur blifa í neinu kongaríke á jørdu.

18. Og eg vil gera þad folk sem yfertredud minn sáttmála, og helldur eigi þau sáttmála ordenn, sem þeir gerdu fyrer mer, líka so sem þann kálfenn, hverum ed þeir sundurskiptu í tvø stycke, og eru so geingner á millum beggia styckianna.

19. Sem eru høfdingiarner í Juda, høfdingiarner í Jerusalem, hyrd sveinarner, prestarner, og allt folked í landenu, sem geingner eru millum þeirra styckianna kálfsins.

20. Og eg vil gefa þá í sinna óvina hendur, og í þeirra hendur sem sækia epter þeirra lífe, ad þeirra líkamer skulu fuglum under himnenum, og dyrum á jørdunne ad átu verda.

21. Og Zedechiam, kongenn Juda, og hans høfdingia, vil eg gefá í þeirra óvina hendur, og þeira sem sækia epter þeirra lífe, og því herlidenu, kongsins af Babylon, þad sem nú er burtfared frá ydur.

22. Þviad siá þú! eg vil bióda þeim (seger Drottinn) og eg vil flytia þá hingad aptur fyrer þennann stad, og þeir skulu strída á móte hønum, og yfervinna hann, og brenna hann upp med ellde, og eg vil foreyda stødunum Juda, so ad engenn skal búa þar leingur.

## 35. Capitule.

1. Þetta er þad ord sem skede af Drottne til Jeremiam, á døgum Joachims, sonar Josía, konungsins Juda, og sagde:

2. Gack þú í hús þeirra Rechabita, og tala vid þá, og leid þá í hús Drottins, í eina capellu, og skeink þeim vín.

3. Þá tók eg Jasania, sonur Jeremia, sonar Habazinia, með hans bræðrum, og øllum hans sonum, og með gervøllu húse Rechabitanna.

4. Og leidde þá inn í húsDrottins, í þá capelluna Hanans barna, sonar Jegdalia, þess Guðs manns, hver að er í hiá capellunne þeirra høfdingianna, fyrer ofann capelluna Maseia, sonar Sallum, dyravørdsins.

5. Og eg sette fyrer børn þeirra af Rechabita húse, staup og skáler, fullar af víne, og eg sagde til þeirra, drecked vín

6. Enn þau svørudu: ver dreckum eigi vín, þviað Jonadab, fader vor, sonur Rechabs, hefir boðed oss, og sagt: þer og ydar børn skulud alldrei drecka neitt vín.

7. Og uppbyggia engenn hús, engu kornsæde sá, enga víngarda grödursetia, eigi helldur hafa; enn þer skulud búa í tialldbúdum, alla ydra lífdaga, uppá það þer skulud leinge lifa, í þvi landenu sem þer erud vegfarande.

8. So hlydum ver nú þeirre raustenne føðurs vors Jonadabs, sonar Rechab, í øllu þvi sem hann hefir boðed oss, so að ver dreckum eigi neitt vín um alla vora daga, hverke ver ne vorar húsfreyur, syner eda dætur.

9. Og ver uppbyggium eigi helldur nein hús að búa í, og ver høfum hverke víngarda, ne akurlønd, ne kornsæde, helldur búum ver í tialld búdum.

10. Og hlydum þvi, og gerum allt það sem fader vor Jonadab hefir boðed oss.

11. Enn þá eð Nabochodonosor, kongurenn af Babylon fór hingad upp í landed, søgdum ver: komum og látum oss fara til Jerusalem, undann herlide þeirra Chaldeiskku, og hinna Syrlendsku; og høfum so vered í Jerusalem.

12. Þá skede ord Drottins til Jeremiam, og sagde:

13. So seger Drottinn Zebaoth, Guð Israels: gack burt, og seg til þeirra í Juda, og til borgaranna í Jerusalem: vited þer eigi bæta ydur, so að þer hlyded mínu orde? seger Drottinn.

14. Ordinn Jonadabs, sonar Rechabs, verda halldenn, sem hann baud børnum sínum, að þau skyllde ei drecka vín, og þau drecka ei vín allt til þessa dags, af þvi þau hlyda síns føðurs bode. Enn eg hefe alla tíma láted predika fyrer ydur, þó hlyded þer mer eigi.

15. So hefe eg og alla tíma sendt til ydar alla mína þenara, prophetana, og láted segia: snúed ydur hver frá sínu vondu athæfe, og bæted ydarn lifnad, og epterfylged eigi annarlegum Guðum, til þess, að þióna þeim, þá skulud þer blífa í landenu, hvert eð eg hefe gefed ydur og ydrum forfedrum. Enn þer villdud eigi hneygia ydar eyru, ne hlyda mer.

16. Þar þó børn Jonadabs, sonar Rechab, hafa hallded síns føðurs boðord, sem hann baud þeim, enn þetta folk hlyder mer eigi.

17. Þar fyrer þá seger Drottinn Guð Zebaoth, og Guð Israels: siá þú! eg vil láta koma yfer Juda, og yfer alla borgar menn í Jerusalem, alla þá ógæfu, sem eg hefe talad á móte þeim, af þvi, að eg talade til þeirra, og þeir villdu eigi heyra mer, eg kallade, og þeir villdu eigi svara mer.

18. Og Jeremias sagde til húsþens þeirra Rechabita, so seger Drottinn Zebaoth, Guð Israels: fyrer það, að þer hlyddud bode ydars

fødurs Jonadab, og hafed halldeð alla hans ſkipan, og gerdud þad allt ſem hann baud ydur,

19. Þar fyrer þá ſeger Drottinn Zebaoth, Gud Iſraels, ſo, þad ſkal alldrei breſta Jonadab, ſon Rechab, ad þar ſkal einhver út af hans ſtanda ætíd fyrer mer.

## 36. Capitule.

1. Á þvi fiorda árenu Joachims, ſonar Joſia, kongſins Juda, ſkede þetta ord til Jeremia, af Drottne, og ſagde:

2. Tak eina bók, og ſkrifa þar í alla þá ordrædu, ſem eg hefe talad til þín, yfer Iſrael, yfer Juda, og yfer øllu fólke, frá þeim tíma er eg talade vid þig, ſem er frá tíd Joſia, allt til þeſſa dags.

3. Ef ſke mætte, ad húſed Juda, nær ed þeir heyra alla þá ógæfu ſem eg hugſa ad gera þeim, ad þeir villdu ſnúa ſer, hver frá ſínu vondu athæfe, ad eg mætte ſo fyrergefa þeim þeirra miſgerninga.

4. Þá kallade Jeremias á Baruch, Neria ſon. Sá hinn ſami Baruch ſkrifade í eina bók, af munne Jeremiæ, alla þá ordrædu Drottins, ſem hann hafde talad vid hann.

5. Og Jeremias ſkipade Baruch, og ſagde: eg em inne byrgdur, ſo ad eg kann ei ad ganga í hús Drottins.

6. Enn gack þú þangad, og les þeſſa bók, í hvera þú hefir ſkrifad þá ordrædu Drottins, af mínum munne, fyrer fólkenu í húſe Drottins, á deige føſtunnar, og þú ſkallt leſa hana fyrer eyrum alls Juda, ſem hingad inn koma út af ſínum ſtødum.

7. Ef ad ſo mætte ſke, ad þeir villdu lítillæta ſig fyrer Drottne, med bæna ákalle, og ſnúa ſer, ſerhver frá ſínu vondu athæfe. Þvi ad ſú reidenn og grimmdenn er mikel, ſem Drottinn hefir umtalad ígegn þeſſu fólke.

8. Og Baruch, Neria ſonur, gerde allt þad, ſem prophetinn Jeremias baud honum, ſo ad hann las þá ord ræduna Drottins af bókenne, í húſe Drottins.

9. Enn ſo bar til á þvi fimmta árenu Joachims, ſonar Joſia, kongſins Juda, í þeim niunda mánade, þad bodud var ein faſta fyrer Drottne, øllu fólke til Jeruſalem, og øllu af þvi fólke ſem kom til Jeruſalem, út af ſtødunum Juda.

10. Og Baruch las þá ord rædunа Jeremiæ, úr bókenne, í húſe Drottins, í capellu Gemaria, ſonar Saphan, cantzelerans, í þeim hinum efra forgarde, fyrer þvi nýa portenu á húſe Drottins, fyrer øllu fólkenu.

11. Þá nú Michaia, ſonur Gemaria, ſonar Saphan, heyrde øll ord Drottins, úr bókenne,

12. Þá geck hann ofann í kongſins hús, í cantzelied, og ſiá þú! ad þar ſátu aller høfdingiarner, Eliſama cantzeler, Delaia, ſonur Semaia, Elnathan, Achbor ſonur, Gemaria, Saphans ſonur, og Zedechia, Hanania ſonur, med øllum høfdingum.

13. Og Michaia kunngerde þeim alla þá rædu, ſem hann hafde heyrt, þá Baruch las af bókenne fyrer folkſins eyrum.

14. Þá ſendu aller høfdingiarner, Judi, ſon Nathania, ſonar Salemia, ſonar Chuſi, epter Baruch, og letu ſegia honum: tak þú bókena med þer, af hverre þú hefir leſed fyrer fólkenu, og kom ſo hingad. Og Baruch, Neria ſonur, tók bókena med ſer, og kom til þeirra.

15. Og þeir ſøgdu til hans: ſet þig nidur, og les, ſo ad ver heyrum

þad. Og Baruch las hana fyrer þeirra eyrum.

16. Og er þeir heyrdu alla þá rædu, skelfdust þeir vid þad, einn med ødrum, og søgdu til Baruch: ver vilum kunngera kongenum alla þessa rædu.

17. Og þeir spurdu Baruch ad, seg þú oss: hvernenn ad þú hefir skrifad alla þessa rædu, út af hans munne.

18. Baruch sagde til þeirra: hann las alla þessa rædu fyrer mer med sínum munne, og eg skrifade hana med bleke í bókena.

19. Þá søgdu høfdingiarner til Baruch: gack burt, og geym þig med Jeremia, so ad engenn vite hvar þid erud.

20. Enn þeir gengu inn til kongsins i forgardenn, og letu bókena vera í herberge Elisama cantzlerans, og søgdu kongenum alla þessu rædu.

21. Þá sende kongurenn Judi burt, ad sækia bókena; hann tók hana af herberge Elisama cantzlerans. Og Judi las hana fyrer kongenum, og fyrer øllum høfdingum, sem stódu hiá kongenum.

22. Enn kongurenn sát í vetrar salnum, fyrer skarsteinenum, á þeim níunda mánude.

23. Enn sem Judi hafde lesed þriú eda fiogur blød, þá skar hann þau burt med skrifknife, og kastade þeim á elldenn, sem var á elldstó skorsteinsins, þangad til ad bókenn var øll uppbrennd í elde.

24. Og engenn hløskrade, ne ísundurreif sín klæde, hverke kongurenn, ne hans þenarar, þó ad þeir heyrdu alla þessa rædu.

25. Enn þó ad Einathan, Delaia, og Gemaria, bædu kongenn, ad hann villde ei brenna bókena, hlydde hann þeim þó eigi.

26. Þar til med baud kongurenn Jerahmeel, syne Hamalech, og Seraia, syne Asriel, og Selamia, syne Abdeel, ad þeir skylldu grípa Baruch skrifara, og Jeremiam propheta, enn Drottinn hafde faled þá.

27. Þá skede ord Drottins til Jeremia, epter þad, ed kongurenn hafde láted brenna bókena, og þá ord ræduna, sem Baruch hafde skrifad epter munne Jeremias, og sagde:

28. Tak þer eina adra bók aptur, og skrifa alla þá hina fyrre ordræduna þar í, sem stód í þeirre hinne fyrre bókenne, hveria Joachim, kongurenn Juda, hefir uppbrennt.

29. Og seg so af Joachim, kongenum Juda, so seger Drottinn: þú uppbrennder þá bókena, og sagder: hvar fyrer skrifader þú þar inne, þad kongurenn af Babylon skyllde koma og fordiarfa þetta land, og gera þad, so ad þar skyllde hverke folk ne fenadur framar meir inne vera?

30. Þar fyrer seger Drottinn af Joachim, kongenum Juda: þar skal engenn út af hans sæde epter verda, sem sitia skal uppá Davids stóle, og hans líkame skal liggia útkastadur á dagenn í hitanum, og á nóttunne í kuldanum.

31. Og eg vil vitia hans heim, og hans sædis og hans þenara, fyrer þeirra misgerda saker; og eg vil láta allskyns ógæfu koma yfer þá, og yfer borgarmennena í Jerusalem; og yfer þá í Juda, sem eg hefe sagt þeim, og þeir hlyddu mer þó eigi.

32. Þá tók Jeremias adra bók, og feck hana Baruch, syne Nerias, skrifaranum. Hann skrifade þar í epter munne Jeremia, alla þá ord ræduna, sem stód í bókenne, sem

Joachim, kongurenn Juda, hafde í ellde brenna lated, og umframm þá hina sömu, þá var þar enn mikilu meire ræda enn í hinne var.

## 37. Capitule.

1. Og Zedechias, Josia sonur, vard kongur í stadenn Jechania, Joachims sonar, hviad Nobochodonosor, konungurenn af Babylon, gerde hann ad konunge í landenu Juda.

2. Enn hann og hans þenarar, og fólked í landenu, hlyddu eigi orde Drottins, þvi sem hann talade fyrer Jeremiam propheta.

3. Enn þó sende kongurenn Zedechias, Juchal son, Selemia, og Sephania, son Maseia, þann kennemann, til prophetans Jeremia, og let segia hønum: bid þú Drottinn Gud vorn fyrer oss.

4. Hviad Jeremias geck nú út og inn á medal folksins, og enginn sette hann í fángelse.

5. So var og þad herlided Pharaonis útfared af Egyptalande, og þeir Chaldei, þar láu fyrer Jerusalem, þá tíd þeir heyrdu soddann rykte, þá fóru þeir burt frá Jerusalem.

6. Og ord Drottins skede til Jeremiam propheta, og sagde:

7. So seger Drottinn Gud Israels: seged so til konungsins Juda, sem sende ydur til mín, til ad spyria mig ad, siá þú! þad herlided Pharaonis, sem útfared er ad koma ydur til hiálpar, skal fara heim aptur í Egyptaland.

8. Og þeir Chaldeisku skulu aptur koma, og strída á móte þessum stad, og yfervinna hann, og brenna hann upp med ellde.

9. Þar fyrer seger Drottinn so: tæled eigi sáler ydrar, þar þer hugsed so, þad þeir Chaldeisku munu burtfara frá oss; þeir munu ei burtfara.

10. Og þó ad þer skel slægud allt herlid þeirra Chaldeisku, sem strída á móte ydur, og nockrer ydrer yrde sárer þar út af, þá mundu þeir þó taka sig upp, hver úr sínu landtiallde, og brenna upp þennann stad med ellde.

11. Enn sem þad herfolk þeirra Chaldeisku var burtfared frá Jerusalem, vegna herlids Pharaonis,

12. Geck Jeremias út af Jerusalem, og villde ganga í Benjamins land, til ad hlutskipta þar akurlende á medal folksins.

13. Og þá ed hann kom í Benjamins port, þá var þar settur einn til dyravords, sá sem het Jeria, sonur Selemia, sonar Hanania, hann tók Jeremiam propheta höndum, og sagde: þú villt falla til þeirra Chaldeisku.

14. Jeremias svarader þad er eigi satt, eg vil ei falla til þeirra Chaldeisku. Enn Jeria villde ei hlyda hønum, helldur greip hann Jeremiam, og leidde hann til høfdingianna.

15. Og høfdingiarner reiddust vid Jeremiam, og letu slá hann, og köstudu hønum í fángelse, í húse Jonathans skrifara; hann settu þeir til ad vera vørd myrkastofunnar.

16. So geck Jeremias í Dyblyssuna, og í fiøturenn, og lá þar langann tíma.

17. Og kongurenn Zedechias sende þangad, og let sækia hann, og spurde hann heimuglega ad í sínu húse, og sagde: er þar nockud eitt ord af Drottne fyrer høndum? Jeremias sagde: já! hviad þú munt gefenn verda í hendur kongenum af Babylon.

18. Og Jeremias sagde til kongs-

ins Zedechia, hvad hefi eg misgert á móte þer, og á móte þínum þenurum, og á móte þessu fólke, ad þeir hafa kastad mer í myrkastofu?

19. Hvar eru nú ydrer prophetar, sem spádu ydur, og sögdu, kongurenn af Babylon mun eigi koma yfer ydur, ne yfer þetta land.

20. Og heyr mig nú, minn Herra kongur! og lát mína bón duga fyrer þer, og lát eigi hafa mig burt aptur í þad hús:d Jonathans skrifara, so ad eg deye þar eigi.

21. Þá baud kongurenn Zedechias ad þeir skylldu geyma Jeremiam í forgardenum myrkastofunnar, og let gefa honum hvern dag eitt braud af bakara stræt nu, þangad til ad allt braudet í stadnum var upp eted, so bleif Jeremias í forgardenum myrkastofunnar.

## 38. Capitule.

1. Og er Saphatia, Mathans sonur, og Gedalia, Pashurs sonur, og Juchal, Selemias sonur, og Pashur, Malchia sonur, heyrdu þá rædu, sem Jemias talade til alls folksins, segiande.

2. So seger Drottinn: hver hann blífur í þessum stad, sá skal deya fyrer sverde, hungre, og drepsótt; enn hver hann gengur út til þeirra Chaldeisku, sá mun life hallda, og sínu life þar frá biarga, sem odru herfange.

3. Þviad so seger Drottinn: Þesse stadur sk l yfergefenn verda herlide kongsins af Babylon, og þeir skulu vinna hann.

4. Þá sögdu höfdingiarner til konungsins: lát þú lífláta þann mann, þviad med soddann hætte þá fr snyr hann strids fólkenu, þvi sem ad enn er ná epter í þessum stad, jafnvel einnenn öllu fólkenu, med þvi, ad hann seger soddann ord til þeirra: Þviad sá madur ser eigi þess á leit sem til fridar heyrer þessu fólke, helldur hins, sem til ógæfu þenar.

5. Kongurenn Zedechias sagde: sjáed! hann er í ydrum höndum, þviad kongurenn kann ecke á móte ydur.

6. Þá tóku þeir Jeremiam, og köstudu honum í grysiu Malchie, sonar Hamelech, sem var í forgarde myrkastofunnar, og letu hann ofann syga med reipum í grysiuna, þar sem eigi neitt vatn var, helldur leir bleyta, og Jeremias sökk nidur í leir bleytuna.

7. Enn sem Ebed Melech bláleudske, einn hyrd sveinn í kongsins garde, heyrde ad þeir höfdu kastad Jeremia í grysiuna, og kongurenn sat í þeim sama tima í Benjamins porte,

8. Þá geck Ebed Melech úr kongsins húse, og talade til kongsins, og sagde:

9. Minn Herra kongur! Þeir menn hafa illa gert vid Jeremiam propheta, ad þeir hafa kastad honum í grysiuna, þar ed hann hlytur af hungre ad deya, þviad her er eigi neitt meira braud til í stadnum.

10. Þá skipade kongurenn Ebed Melech blámanne, og sagde: tak þriátíu menn med þer af þessum, og drag Jeremiam propheta upp úr grysiune, ádur enn hann deyi.

11. Og Ebed Melech tók mennena med ser, og geck inn í kongsins hús, þar nidur under sem fehyrdslurnar voru, og tók þar sundurrifna og útslitna gamla larfa, og let þá í einum streing ofan í grysiuna til Jeremia.

12. Og Ebed Melech blámadur sagde til Jeremia: lát þessa gamla

sundurrifna útslitna larfa under þína armlegge kringum streingenn, og Jeremias gerde so.

13. Og þeir drogu Jeremiam upp úr grysiunne með tegenu, og Jeremias var so í forgarde myrkastofunnar.

14. Og kongurenn Zedechias sende þángad, og heimte Jeremiam prophetá til sín, under þann hinn þriðia inngangenn á huse Drottins. Og kongurenn sagde til Jeremia, eg vil spyria þig ad nocko ru: kære! dyl þess eigi fyrer mer.

15. Jeremias sagde Zedechiam: sege eg þer nockud, þá lísletur þú mig; enn gefe eg þer eitt ráð, þá hlyder þú mer eigi.

16. Þá sór kongurenn Zedechias Jeremia heimuglega, og sagde: so sannarlega sem Drottinn lifer, sá ed hefir gjört oss þessa sálu, þá vil eg eigi lífláta þig, og eigi helldur gefa þig í þeirra hendur, sem sækia epter þínu lífe.

17. Og Jeremias sagde til Zedechiam: so seger Drottinn Gud Zebaoth, Gud Israels, ef ad þú gengur út til høfdingianna kongsins af Babylon, þá mun þú lífe hallda, og þesse stadurenn mun þá eigi uppbrenndur verda.

18. Helldur þú og þitt hús mun þá lífe hallda. Enn ef þú gengur eigi út til høfdingianna kongsins af Babylon, þá mun þesse stadur gefast í hendur þeirra Chaldeiska, og þeir munu brenna hann upp med ellde, og þú munt eigi einnenn sleppa úr þeirra høndum

19. Kongurenn Zedechias svarade til Jeremiam: eg hrædunst þad eg mune þeim Gydingum ofurselldur verda sem fallner eru til þeirra Chaldeiska, so ad þeir spotte mig.

20. Jeremias sagde: eige munu þeir ofurselia þig. Kære! hlyd þú raustenne Drottins, sem eg sege þer, þá mun þer vel vegna, og þú munt þá lífe hallda.

21. Enn ef þú gengur ei út, þá er þetta þad ord sem Drottinn hefir auglyst mer.

22. Siá þú! allar þær konur sem ad enn nú eru í húse kongsins Juda, þær skulu útleidast til høfdingia kongsins af Babylon, þær munu þá segia: avi! þíner hugsvalarar hafa yfertalad þig, og þig á tálar dreiged, og fært þig í óhreinendenn, og eru snúner aptur á bak.

23. So munu allar þínar konur og børn útleidast til þeirra Chaldeiska, og þú siálfur munt eigi umflúed geta, frá þeirra høndum, helldur mun þú gripenn verda af kongenum af Babylon, og þesse stadur mun med ellde uppbrenndur verda.

24. Og Zedechias sagde til Jeremia: siá þú til! ad engenn fáe þesse ord ad vita, þá mun þú eigi deya.

25. Og ef høfdingiarner fá þad ad vita, ad eg hefe talad vid þig, og þeir koma til þín, og segia: seig þú hvad þú talader vid kongenn, dyl eigi fyrer oss, þá vilum ver eigi aslífa þig, og hvad talade kongurenn vid þig?

26. Þá seg þú: eg bad kongenn, þad hann villde eigi láta leida mig aptur í Jonathans hús, eg hlyte þar ad deya.

27. Þá komu aller høfdingiar til Jeremia, og spurdu hann ad, og hann sagde þeim so sem þad kongurenn hafte boded hønum. Þá forletu þeir hann, med þvi, ad þeir kunnu eigi neins af hønum víser ad verda.

28. Og Jeremias var í forgerde

myrkastofunnar, allt til þess dags þá Jerusalem var unnenn.

## 39. Capitule.

1. Og það skede, ad Jerusalem vard unnenn. Þviad á þvi níunda árenu Zedechia, konungsins Juda, á þeim tíunda mánude, kom Nabochodonosor, kongurenn af Babylon, og allt hans herlid, fyrer Jerusalem, og settust um hana.

2. Og á þvi ellefta árenu Zedechia, á þeim níunda deige hins fiorda mánadar, þá brutust menn inn í stadenn.

3 Og aller hofdingiarner kongsins af Babylon fóru þar inn, og námu stadar í midportenu, sem voru, Nergal Sar Ezer, Sangar Nebo, Sarsechim, hinn ædste herbergis sveinn, Nergal Sar Ezer, hofmeistarenn, og aller adrer hofdingiar kongsins af Babylon.

4. Enn sem Zedechias, kongurenn Juda, hann sá þá, og hans stríðsfolk, þá flydu þeir um nótt, út af stadnum, í hiá þeim jurtagardenum kongsins, út um það ported, á millum tveggia múra, og fóru út ad eydemorkenne.

5. Enn herlid þeirra Chaldeisku sókte epter þeim, og gátu gripeð Zedechiam, á þvi slettlendenu hiá Jericho, og fongudu hann, og hofdu hann til Nebochodonosors, kongsins af Babylon, til Riblath, sem liggur í landenu Hemath, hann sagde dóm yfer honum.

6. Og kongurenn af Babylon let ihel slá bornenn Zedechia fyrer hans augum, í Riblath, og aflíjade alla hofdingiana Juda.

7. Enn á Zedechia let hann stínga út augunn, og binda hann med vidium, ad hann flytte hann til Babylon.

8. Og þeir Chaldeisku brenndu upp bæde kongsins hús, og þann húsenn borgar mannanna, og nidurbrutu múrveggena Jerusalem.

9. Enn það sem þar var enn til af fólkenu í stadnum, og það annad hvad þar hafde til þeirra flúed, þá flútte Nebusar Adan hershofdinge alla saman herlekna til Babylon.

10. Enn af þvi vinneháttar fólkenu, sem eigi neitt áttu til, let Nebusar Adan, hofuds madurenn, í það sama sinn nockra vera epter í landenu Juda, og gaf þeim víngarda og þorp.

11. Enn Nabochodonosor, kongurenn af Babylon, hafde bodet Nebusar Adan, hofuds mannenum, um Jeremiam, og sagt.

12. Tak þú hann, og lát þína vernd yfer honum vera, og gør honum eigi neitt til vonda, helldur ger vid hann epter þvi sem hann beidest af þer.

13. Þá sende Nebusar Adan, hofuds madur, og Nebu Sasban, hinn ædste hirdsveinn, Nergal Sar Ezer, hofmeistarenn, og aller kongsins hofdingiar, af Babylon,

14. Og letu sækia Jeremiam: úr forgarde myrkastofunnar, og í hendur feingu hann Gedalia, syne Ahikams, Saphans sonar, ad hann skyllde leida hann út þadann í sitt hús, og það hann skyllde vera hiá fólkenu.

15. Ord Drottins var sked og so til Jeremiam, þá stund, ed hann lá enn nú inneluctur í forgarde myrkastofunnar, og sagde:

16. Gack þú burt, og seg til Ebed Melech blámannsins, so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: siá þú! eg vil láta mitt ord koma yfer þennann stad, til ógæsu, og til einskis gods, og þú skallt siá það þann sama tíma.

17. Enn eg vil frelsa þig í þann

sama tíma, seger Drottinn: og þú skallt eigi verda þvi fólke ad hlut skipte, fyrer hveru þú hrædest.

18. Þviad eg vil hiálpa þer þar frá, so ad þú skallt ei falla fyrer sverde, helldur skalltu þar frá þinu lífe biargad geta, líka sem ødru hlutskipte, af þvi, ad þú setter trú til mín, seger Drottinn.

## 40. Capitule.

1. Þetta er þad ord, sem skede af Drottne til Jeremiam, þá ed Nebusar Adan, høfuds madurenn, let hann lausann í Rama. Þviad hann var og bundenn med vidium, á medal allrá þeirra, sem hertekner voru til Jerusalem, og í Juda, ad þá skyllde flytia til Babylon.

2. Þá ed høfuds madurenn hafde nú láted kalla Jeremiam fyrer sig, sagde hann til hans: Drottinn Gud þinn hefir talad þetta hid vonda yfer þessum stad.

3. Henn let þad og einnenn koma, og gerde sem hann hafde sagt, þviad þer syndgudust imóte Drottne, og hlyddud eigi hans raust, þar fyrer er soddann yfer ydur komed.

4. Siá þú nú! eg hefe í dag gert þig lausann af þeim vidium, sem þínar hendur voru med bundnar, líkar þer nú ad fara med mer til Babylon, þá kom þú, þá skallt vera mer á hendur falenn. Enn ef þer líkar þad ei, ad fara med mer til Babylon, þá lát þú þad vera. Siá þú! þar hefir þú allt landed fyrer þer, hvar ed þer þyker godt ad vera, og þer þoknast, þangad far þú. Þviad ef þad leingra er burtfared, þá er eigi von neinnrar apturkomu.

5. Þar fyrer mát þú nú snúa aptur til Gedalia, sonar Ahikam, Saphans sonar, hvern ad kongurenn af Babylon hefir sett yfer stadena í Juda, og vera so hiá honum á medal folksins, eda far þangad, sem þer siálfum líkar best. Og høfuds madurenn gaf honum tæring og fegiafer, og let hann burtfara.

6. So kom Jeremias til Gedalia, Ahikams sonar, til Mizpa, og var hiá honum á medal folksins, þess sem epter var orded í landenu.

7. Þá ed þeir høfuds menn, sem sig høfdu hallded út á landenu, med sínum mønnum, formerktu þad kongurenn af Babylon hafde sett Gedaliam, Ahikams son, yfer landed, og so bæde yfer karlmenn, konur og børn, og þá hinu minnstu háttar menn í landenu, sem eigi voru burtflutter til Babylon.

8. Þá komu þeir til Gedalia í Mizpa, sem voru þeir, Ismael, Nethania sonur, Johanan og Jonathan Kareah syner, og Seraia, Thanhumeth sonur, og syner Ephai af Nethophath, og Jesania, Maachathi sonur, med sínum mønnum.

9. Og Gedalia, sonur Ahikams, sonar Saphans, gerde þeim, og þeirra mønnum, einn eid, og sagde: hrædest eigi þad, ad vera þeim Chaldeisku undergefner, blífed í landenu, og vered kongenum af Babylon undergefner, þá mun þad vegna ydur vel.

10. Siáed! eg by her í Mizpa, ad eg skule þióna þeim Chaldeisku, sem til vor koma, þar fyrer innsafned víne, og fíkium, og vidsmiøre, og láted þad í ydar ker, og búed í ydrum stødum, sem þer hafed fenged.

11. Og aller Gydingar, sem voru í landenu Moab, og Ammons barna, og í Edom, og í øllum løndum, þá ed þeir heyrdu nú þad, ad kongurenn af Babylon, hafde láted nockra epter vera í Juda, og sett

yfer þá Gedaliam, son Ahikam, sonar Saphans,

12. Þá komu þeir aller aptur í landed Juda, úr øllum áttum, þadann sem þeir høfdu útdrifner vered, til Gedalia, í Mizpa, og samansøfnudu nærsta mikla víne, og sumars ávextum.

13 Enn Johanan, Kareah sonur, med øllum høfuds mønnum, sem ser høfdu fordad út á landenu, komu til Gedalia, í Mizpa, og søgdu til hans.

14. Veits þú nockud, þad Baelis, kongurenn Ammons barna, hefir sendt hingad Ismael, Nethania son, ad hann skylldi slá þig íhel? enn Gedalia, Ahikams sonur, villdi því eigi trúa.

15. Þá sagdi Johanan, Kareah sonur, til Gedalia, heimuglega, í Mizpa: kære! eg vil fara burt, og íhel slá Ismael, Nethania son, so ad engenn skal þad fá ad vita, hvar fyrer skal hann slá þig íhel, so ad aller Gydinger, sem til þín eru safnader, skulu ísundur dreifdr verda, og ad þeir sem epter eru ordner af Juda skulu so fyrerfarast?

16. Enn Gedalia, Ahikams sonur, sagde til Johanan, Kareah sonar: eigi skalltu þad gera, þad er eigi satt, sem þú seger af Ismael.

## 41. Capitule.

1. Enn á þeim siounda mánude kom Ismael, Nethania sonur, Elisama sonar, út af konunglegu slekte, med yfer herrum kongsins, og tíu menn med hønum, til Gedaliam, Ahikams sonar, til Mizpa, og þeir neyttu þar matar í Mizpa, hver med ødrum.

2. Og Ismael, Nethania sonur, bió sig til med þá tíu menn, sem hønum fylgdu, og slóu Gedaliam, Ahikams son, Saphans sonar, med sverde til dauda, fyrer þad ad kongurenn af Babylon hafde sett hann yfer landed.

3. Þar med sló Ismael alla þá Gydinga, sem voru hiá Gedalia, í Mizpa, og so þá Chaldeisku, sem þeir fundu þar, og alla stríds menn.

4. Annars dags epter þad Gedalia var sleigenn, og þad vissi enn engenn,

5. Komu áttatíu menn af Sichem, af Silo, og af Samaria, og høfdu sín skegg afrakud, og ísundur rifed sín klæde, og klórad sig, og báru med ser matar offur og reykelse, til ad færa þad í hús Drottins.

6. Og Ismael, Nethania sonur, geck út á móte þeim af þeim af Mizpa, geck framm og gret. Þá ed hann kom nú ad þeim, sagde hann til þeirra: þer skulud koma til Gedalia, Ahikam sonar.

7. Enn sem þeir komu midt í stadenn, sló Ismael, Nethania sonur, þá íhel, og þeir menn, sem hiá hønum voru vid brunnenn.

8. Enn þar voru tíu menn á medal þirra, sem søgdu til Ismaels. Kære! slá þu oss íhel, ver høfum fólged fe, liggiande í akrenum, af hveite, bygge, vidsmiøre, og húnánge, þá hætte hann af því, og afslifade þá eigi med hinum ødrum.

9. Enn sá brunnurenn, í hvern þad Ismael kastade þeim daudu líkømunum, sem hann hafde íhelsleiged med Gedalia, þá er sá hinn same, sem kongurenn Assa let gera, imót Baesa, Israels konge, þann uppfyllte nú Ismael, Nethania sonur, med þeim íhelsleignu.

10. Og þad fólked sem umframm var, í Mizpa, einnenn kongsins dotter, þad flutte Ismael,

Nethania son, herteked burt, med øllu þvi fólke, sem epter var í Mizpa, yfer hvert Nebusar Adan, høfuds madurenn, hafde sett Gedaliam, Ahikams son, og fór burt, og villde yferum til Ammons barna.

11. Enn þá ed Johanan, Kareah sonur, og aller hershøfdingiarner, sem hiá hønum voru, spurdu øll þau illsku verk sem Ismael, Nethania sonur, hafde gert,

12. Tóku þeir til sín alla menn, og fóru út imóte Ismael, Nethania syne, til Bardaga, og nádu hønum vid þad mikla vatned hiá Gibeon.

13. Enn þá fólked, þad sem var hiá Ismael, sá nú Johanan, Kareah son, og alla hershøfdingiana, sem hiá hønum voru, urdu þeir glader vid.

14. Og allt þad fólked, sem Ismael hafde burt flutt frá Mizpa, snere sér vid, og hvarf aptur til Johanan, Kareah sonar.

15. Enn Ismael, Nethania sonur, flýde undann Johanan, vid átt unda mann, og fór til Ammons barna.

16. Og Johanan, Kareah sonur, med øllum hershøfdingiunum, sem hiá hønum voru, tóku allt þad fólked, sem epter var orded (þad sem þeir høfdu fært aptur frá Ismael, Nethania syne) af Mizpa, til sín, af þvi þad Gedalia, Ahikams sonur, var íhel sleigenn, sem voru strídsmenn, konur og børn, og hyrd sveinar af Gibeon, sem þeir høfdu aptur flutt.

17. Og fóru af stad, og sneru inn til Kimham, til herbergis, sem bió hiá Bethlehem, og villdu fara til Egyptalands, fyrer saker þeirra Chaldeiskru.

18. Þviad þeir voru hrædder vid þá, af þvi þad Ismael, Nethania sonur, hafde íhel sleiged Gedaliam, Ahikams son, hvern ad kongurenn af Babylon hafde sett yfer landed.

## 42. Capitule.

1. Þá gengu aller høfdingiarner hersins, Johanan, Kareah sonur, og Jesania, Hosaia sonur, med øllu fólke, bæde smáum og storum,

2. Og søgdu til Jeremiam propheta; kære! lát vora bæn gillda fyrer þer, og bid til Drottins, Guds þins, fyrer oss, vegna allra þessara, sem epter eru ordner (þviad ver erum, þvi verr, fáer epter ordner af mørgum, so sem þad siálfur þú ser oss med þínum augum.)

3. So þad Drottinn Gud þinn villde kunngera oss, hvert ver ættum ad fara, og hvad ver skulum til gera.

4. Og Jeremias prophete sagde til þeirra: nú vel! eg vil hlyda, og siáed! eg vil bidia Drottinn Gud ydarn, sem þer søgdud, og eg vil kunngera ydur allt þad, hvad Drottinn svarar ydur, og eg vil eigi dylia neitt fyrer ydur.

5. Og þeir søgdu til Jeremia: Drottinn hann se þess einu trúlegur og sannarlegur vottur, á millum vor, ef ad ver gerum eigi allt hvad Drottinn Gud þinn befalar þer til vor,

6. Hvert þad er helldur godt eda illt, þá vilum ver hlyda raustenne Drottins Guds vors, til hvers ver sendum þig, so ad þad meige vegna oss vel, er ver hlydum raustenne Drottins, vors Guds.

7. Og tíu døgum þar epter skede ord Drottins til Jeremiam.

8. Þá kallade hann Johanan, Kareah son, og alla høfuds menn hersins, sem hiá hønum voru, og allt fólked bæde smáa og stóra.

9. Og sagde til þeirra: so seger Drottinn Gud Israels, til hvers ed þer sendud mig, ad eg skyllde flytia ydrar bæner fyrer hann.

10. Ef ad þer blífed í þessu lande, þá vil eg uppbyggia ydur, enn eigi nidurbriöta; og vil gródursetia ydur, enn eigi uppræta, þvi þad hid vonda, sem eg hefe gert ydur, þad ángrar mig nú alla reidu.

11. Þer skulud eigi hrædder vera um ydur, fyrer kongenum af Babylon, hvern þer óttest, seger Drottinn, eigi skulud þer hrædast hann, þviad eg vil vera hiá ydur, ad hiálpa og frelsa ydur af hans hende.

12. Eg vil audsyna ydur misskunseme, og vera ydur líknsamur, og innflytia ydur í ydart land aptur.

13. Enn ef þer seged: ver vilum eigi vera í þessu lande, hvarmed þer viled eigi hlyda raustenne Drottins Guds ydars.

14. Helldur seged: nei! ver vilum fara í Egyptaland, so ad ver skulum engann bardaga siá, ne heyra basúnunnar hliód, og ei helldur húngur lída brauds vegna, þar vilum ver vera.

15. Nú, so heyred ord Drottins: þer sem epter erud ordner af Juda, so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: þar ed þer seted ydra ásionu til ad fara í Egyptaland, so ad þer viled þar vera.

16. Þá skal þad sverd, fyrer hveru þer hræddir erud, hæfa ydur í Egyptalande, og þad húngred, fyrer hveru þer kvíded, skal alla tíma vera kringum ydur í Egyptalande, og þar skulud þer deya.

17. Þeir seu hverer ed vilia sem setia sína ásiónu ad fara í Egyptaland, til ad vera þar, þeir skulu deya fyrer sverde, húngre, og drepsott, og þar skal engenn epter verda, ne hid vonda umflýed geta, sem eg vil láta koma yfer þá.

18. Þviad so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: líka sem mín reide og grimmd er gengenn yfer Jerúsalems innbyggiara, so skal hún og einnenn ganga yfer ydur, ef ad þer fared í Egyptaland so ad þer skulud vera til bölvunar, til forundrunar, til blóts og forsmánar, og þer skulud eigi siá þennann stad framarmeir.

19. Þad ord Drottins kemur ydur til, þer sem epter erud ordner af Juda! ad þer skulud eigi fara í Egyptaland. Þar fyrer þá vited, ad eg vitna fyrer ydur í dag, þad þer draged á tálar ydrar sáler.

20. Þviad þer sendud mig til Drottins, Guds ydars, og sögdud: bid þú Drottinn Gud vorn fyrer oss, og kunnger oss allt hvad Drottinn vor hann seger; so vilum ver og gera þar epter.

21. Þad hefi eg nú láted ydur fá ad vita í dag, enn þer viled eigi hlyda raustenne Drottins, Guds ydars, og ei ollu þvi sem hann bífalade mer til ydar.

22. So skulud þer nú þad vita, ad þer hlióted ad deya fyrer sverde, hungre, og drepsott, í þeim stödum til hverra þer þeinked ydur nú ad fara, so ad þer viled þar búa.

## 43. Capitule.

1. Þá ed Jeremias hafde útalad oll ord Drottins Guds þeirra, til alls folksins, so sem Drottinn Gud þeirra hafde bífalad honum oll þesse ord til þeirra,

2. Sagde Asaria, Hosaia sonur, og Johanan, Kareah sonur, og aller drambsamer menn, til Jeremia: Þú lygur, Drottinn Gud vor hefir

ei sendt þig til vor, eigi helldur það sagt, þer skulud eigi fara í Egyptaland, til ad búa þar.

3. Helldur hefir Baruch, Neria sonur, eggiad þig á þetta, imóte oss, so ad ver skylldum gefast í hendur þeirra Chaldeiska, ad þeir feinge líflated oss, og burtflutt til Babylon.

4. So hlyddi nú Johanan, Kareah sonur, og aller hofdingiar hersins, ásamt med ollu fólkenu, ei raustenne Drottins, ad þeir væru í landenu Juda.

5. Helldur tóku Johanan, Kareah sonur, og aller hofdingiarner hersins ad ser alla þá sem epter voru af Juda, og allt það fólked sem aptur var komed, til ad búa í landenu Juda, frá allsháttudum þióðum, þangad sem þeir hofdu flúed.

6. Sem ad voru, menn, kvinnur og born, þar til kongsins dottur, og allar þær sáler, sem Nebusar Adan, hofuds madurenn, hafde epter láted, hiá Gedalia, syne Ahikam, sonar Saphans, og einnenn líka Jeremiam propheta, og Baruch, Neria son.

7. Og fóru í Egyptaland, því ad þeir villdu eigi hlyda raustenne Drottins, og komu til Thachpanhes.

8. Og ord Drottins skede til Jeremia, í Thachpanhes, og sagde:

9. Tak stora steina, og byrg þá í tigulofnenum, sem er fyrer portdyrunum á húse Pharaonis, í Thachpanhes, so ad þeir menn af Juda siáe það.

10. Og seg þú til þeirra: so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels, siá þú! eg vil senda hedann, og láta sækia minn þión Nabuchodonosor, kongenn af Babylon, og eg vil setia hans stól ofan á þessum steinum, hvera eg byrgde her.

11. Og hann skal setia sitt landtialld þar uppyfer. Og hann skal koma og slá Egyptaland, og drepa hvern sem það hitter uppá, og burtflytia þann hertekenn sem það hitter uppá, þann med sverde drepa sem það áhitter.

12. Og eg vil uppkveikia med ellde húsenn skúrgodanna í Egyptalande, so ad hann skal uppbrenna þau, og burtflytia. Og hann skal íklæda sig Egyptalande, líka sem einn hyrder íklæder sig sínu fate, og ferdast burt þadann med fride.

13. Hann skal ísundur brióta þann líknesskiu stolpann í Beth Semes, í Egyptalande, og uppbrenna med ellde skúrgoda hofenn Egyptalands.

## 44. Capitule.

1. Þetta er það ord sem skede til Jeremiam, til allra þeirra Gydinganna sem bioggu í Egyptalande, sem var í Migdal, í Thachpanhes, í Noph, og í landenu Pathros, og sagde:

2. So seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: þer sáud allt það hid vonda, sem eg let koma yfer Jerusalem, og yfer alla stadena Juda, og siáed, ad þeir eru í eyde enn þennann dag, og þar byr engenn inne.

3. Og það sama fyrer þeirra illsku saker sem þeir fromdu, ad þeir reittu mig tilreide, og gengu burt, og gáfu reykelse, og þiónudu annarlegum Gudum, hvera hvorke þeir, ne þer, ne ydrer forfedur þecktu.

4. Og eg sende ætíd til ydar alla mína þenara, prophetana, og let segia ydur: gióred ei sodvann svívirdingar, hverar eg hata.

5. Enn þeir hlyddu eigi, þeir

hneigdu eigi helldur sín eyru, ad þeir sneru burt frá sínum vondskap, ad þeir gerdu eigi reykelse annarlegum Gudum.

6. Þar fyrer uppheltt mín reide og grimmd, og brann yfer stødunum Juda, og yfer strætunum í Jerusalem, so ad þau urdu ad eydemørkú og óbygdum, so sem þad stendur í dag.

7. Nú, so seger Drottinn, Gud Zebaoth, Gud Jsraels: Þvi gered þer so mikla illsku á móte ydru siálfs eigenn lífe? fyrer hvera þad upp skulu rætast, á medal ydar, bæde karlmenn og konur, bæde børn og brióstmylkingar af Juda, og ecke af ydur epter verdá.

8. Af þvi þer reited mig tilreide, med ydrum handaverkum, og gered reykelse fyrer annarlegum Gudum í Egyptalande, þangad sem þer erud innfarner til herbergis, so ad þer yrdud upprætter, og verd ed til bølvanar, og til forsmánar, á medal allra heidingia á jørdu.

9. Hafed þer forgleymt ógæfunne ydara forfedra, óluckunne konungsins Juda, þvi lúckuleysenu þeirra eigenn kvenna, þar til med ydarre eigenn ógæfu, og óhamingu ydara eigenn kvenna, sem yfer ydur hefir komed á Gydinga lande, og á þeim strætunum til Jerusalem.

10. Og þó audmykia þeir sig eigi allt til þessa dags, og ugga ei um sig, og ganga eigi í mínu løgmále og rettindum, sem eg gaf ydur og ydrum forfedrum.

11. Þar fyrer seger Drottinn Zebaoth, Gud Jsraels so: siá þú! eg vil setia mit auglit á móte ydur til ógæfu, og allt Juda skal uppkætast.

12. Og eg vil taka þá sem epter eru vordner af Juda, þeir ed sínu andlite hafa snúed til ad fara í Egyptaland, til ad taka ser þar herberge, þad skal fá einn enda med alla þá í Egyptalande: þeir skulu falla fyrer sverde, og fyrerfarast af hungre, bæde smáer og storer; þeir skulu deya fyrer sverde og hungre, og þeir skulu ad særingum, undrun, bølvan, og ad forsmán verda.

13. Eg vil einnenn vitia þeirra innbyggiaranna í Egyptalande medur sverde, hungre drepsott, líka so sem þad eg hefe gert til Jerusalem.

14. So þad engenn, af þeim sem epter eru vordner af Juda, skal undann komast eda epter vera. Þeir ed þó erud fyrer þá skulld hingad komner í Egyptaland, ad herbergia her, so ad þeir mættu aptur komast til Gydinga lands; hvert ed þeir villdu giarnann eiga aptur ad koma, og búa þar, enn engenn af þeim skal þangad aptur koma, utan þeir sem hedann flya.

15. Þá svørudu aller menn Jeremia, þeir sem vissu vel, ad þeirra húsfreyur gerdu reykelse annarlegum Gudum, og allar þær konur sem þar stódu í miklum hóp, med øllu fólke, þvi sem bió í Egyptalande, og í Pathros, og søgdu.

16. Vær vilum eigi hlyda þer, epter þeim ordum sem þú talar til vor, í nafne Drottins.

17. Helldur vilum ver gera epter øllum þeim ordum, sem útganga af vorum munne, og ver vilum reykelse gera himensins Melcheth, og offra henne dryckiar offre, so sem ver og vorer forfedur, vorer kongar, og hofdingiar hafa gert, í stødunum Juda, og á strætunum til Jerusalem, þá høfdum ver og einnenn noglegt braud, og þá geck oss vel, og sáum enga ógæfu.

18. Enn upp frá þvi ad ver lettum af ad gera reykelse himensins Melecheth, og ad offra dryckiar offre, þá høfum ver lided brest á øllum hlutum, og høfum glatast fyrer sverde og hungre.

19. Og so líka, þá ed ver gerdum himensins Melecheth reykelse, og offrudum dryckiar offre, þá gerdum ver þad eigi utann med vilia vorra húsbænda, ad ver bøkudum henne brand køkur, og offrudum henne dryckiar offre, henne til umhyggiu.

20. Þá sagde Jeremias til alls folksins, bæde karlmanna og kvenna, og alls lydsins, sem so hafde svarad hønum.

21. Já! eg meina og einnenn, þad Drottinn hafe minnst á þá reykelses gerdena, sem þer hafed framed í stædunum Juda, og á strætunum til Jerusalem, med ydrum forfedrum, konungum, høfdingum, og øllu fólkenu landsins, og ad hann hafe fest þad í sínn hiarta.

22. So ad hann kunne eigi lengur ad lída ydar vondslega breytne og svívirdingar, sem þer gerdud, hvar fyrer ydart land er so í eyde lagt, orded ad forundran og bølvan, so ad engenn byr þar inne, so sem þad stendur enn á þessum deigi.

23. Fyrer þad, ad þer gerdud reykelsed, og syndgudust á móte Drottne, og hlyddud eigi raustenne Drottins, og villdud eigi ganga í hans løgmále, rettindum og vitnisburdum, þar fyrer þá hefir ydur sked soddann ógæfa, so sem þad stendur þennann dag.

24. Og Jeremias sagde til alls folksins, og til allra kvennanna: heyred ord Drottins þer aller af Juda! sem erud í Egyptalande.

25. So seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: þer, og ydrar húsfreyur, hafed talad þad med ydrum munne, og fullkomnad þad med ydrum høndum, sem þer søgdud: ver vilum hallda vora lofan, sem ver høfum heited himensins Melecheth, ad gera henne reykelse, og offra henne dryckiar offre. Nú vel! þer hafed endt ydra lofan, og hallded ydart heite.

26. So heyred nú ord Drottins, þer aller af Juda, sem búed í Egyptalande: siáed! eg sver vid mitt hid mikla nafn, seger Drottinn, þad mitt nafn skal eigi meir nefnast af nockurs manns munne út af Juda, í øllu Egyptalande, sem þad seger: (so sannarlega, sem þad Drottinn hann lifer.)

27. Siá þú! eg vil vaka yfer þeim til ógæfu, og til einskis gods, so ad hver sem er í Egyptalade, út af Juda, sá skal tortínast fyrer sverde og hungre, allt þar til ad þad hefir feinged einn enda med þeim.

28. Enn þeir sem umflúed geta fyrer sverdenu, þeir skulu þó aptur koma í landed Juda, af Egyptalande, med einn lítenn flock (manna,) og aller þeir adrer af Juda, sem inn eru farner í Egyptaland, til ad liggia þar til herbergis, skulu þá formerkia, hvers ord sannare erú ordenn, mín eda þeirra.

29. Og til merkis seger Drottinn: þad eg vil vitia ydar í þessum stad, so ad þer skulud vita ad mitt ord skal sannarlegt verda yfer ydur til óluckn,

30. Þá seger Drottinn so: siá þú! eg vil gefa Pharaonem Hapbra, kongenn af Egyptalande, í hans óvina hendur, og þeirra sem leita epter hans life, líka so sem eg gaf Zedechiam, kongenn Juda, í hans óvina hendur, Nobochodónosor, kongsins af Babylon, og í

þeirra hondur sem stódu epter hans Lífe.

## 45. Capitule.

1. Þetta er þad ord sem Jeremias prophete talade til Baruch, Neria sonar, þá er hann skrifade þesse ord í eina bók, af munne Jeremiæ, á þvi fiorda árenu Joachims, Josia sonar, konungsins Juda, og sagde:

2. So seger Drottinn Zebaoth, Gud Jsraels, um þig Baruch.

3. Þú seger: vei mer! hvernenn hefir Drottinn lagt mer til sorg, ofann á sorg, eg styn mig módann, og finn enga hvíld.

4. Seg þú honum: so seger Drottinn, siá þú! eg nidurbryt þad sem eg uppbygde, og þad sem eg hefe gródursett, þad upprœte eg, ásamt med ollu þessu minu eigenn lande.

5. Og þú gyrnest mikla hlute, gyrnst þad eigi, þviad siá þú! eg vil koma láta ógæfu yfer allt holld, seger Drottinn, enn eg vil gefa þer þína sálu ad hlutskipte, hvert sem þú fer.

## 46. Capitule.

1. Þetta er þad ord Drottins, sem skede til Jeremia spámans, á móte ollum heidingum.

2. A móte herlide Pharao Necho, kongsins af Egyptalande, sem lá vid vatned Phrath, í Charchemis, hvert ed Nabochodonosor, kongurenn af Babylon sló, á þvi fiorda árenu Joachims, Josia sonar, konungsins í Juda.

3. Búed til skiolldunа, og buklarana, og fared í stríd.

4. Spenned fyrer hestana, og láted riddarana þar uppá sitia, seted upp hiálmana, og hvessed gladelenn, og fáred í Pansarana.

5. Enn hvernenn kemur þad til, ad eg se, þeir eru duglauser, og flya undann, og þeirra kempur eru ehel slegnar? þeir flya undann, so ad þeir lyta ei aptur, og skelfingenn er ikringum þá, seger Drottinn.

6. Sá hinn skióte kann eigi burt ad flya, og ei hellduг hinn ósluge undann ad komast, þeir eru fallner og nidur slegner imót nordrenu, hiá vatnenu Phrath.

7. Hver er nú sá sem fór upp hingad, sem eitt vatnsflód, og hvers bylgiur sig upphófu, sem adrar vatns bylgiur?

8. Egyptaland fór upp hingad, sem einn vatns straumur, og þeirra bylgiur hófu sig so sem vatns bylgiur, og sagde: eg vil fara upp þangad, til ad hylia landed, og til ad fordiarfa þá stadena, med þeim sem þar inne búa.

9. Nú vel! stiged á hestana, hlepped med vagnana; láted hetiurnar út fara, blámennena, og þá út af Put, sem skiolldуна hafa, og bog skytturnar af Lydia.

10. Þviad þetta er dagur Drottins, Drottins Zebaoth, einn hefndar dagur, þad hann vill hefna sín á sínum óvinum, so ad sverded skal uppeta þá, og verda fullt, og drucked af þeirra blóde. Þviad þeir hlióta ad verda Drottne Zebaoth eitt slátrunar offur, í þvi landenu mót nordrenu, vid vatned Phrath.

11. Þú júngfru Egyptalands dotter! gack hedann upp til Gilead, og sæk þer smyrsli, enn þad kemur til einskis, ad þú farer med mikla lækningar, þú verdur eigi heilbrigd ad helldur.

12. Skomm þín er augllos ordenu á medal heidenna þióda, af þínum gráte er landed fullt; þviad ein hetiann fellur yfer adra, og liggia so báder nidre hver med odrum.

13. Þetta er þad ord Drottins sem hann talade til Jeremiam propheta, þá ed Nabuchodonosor, kongurenn af Babylon, ferdadest út til ad slá Egyptaland.

13. Kunngered þad í Egyptalande, og undervísed þad í Migdol. Láted þá í Noph og Tachpankes fá þad ad vita, og seged: bú þig til varnar, þviad sverded mun uppeta allt þad hvad íkringum þig er.

15. Hvernen gengur þad til, þad þíner volldugu falla til jardar, og geta eigi vid-staded? Drottinn kastar þeim so nidur.

16. Hann gerer þad, ad so marger falla af ydur, so ad einn liggur þar nidre med ødrum. Þá søgdu þeir: upp! og látum oss ferdast til vorra manna, í vort føđurland, fyrer sverdenu þess tyrannans.

17. Þá var kallad epter þeim, þad Pharao, kongurenn af Egyptalande, liggur fallenn, hann hefer mist sín land tiølld.

18. Só sannarlega sem eg life, seger sá konungurenn, sem heiter Drottinn Zebaoth: hann skal ferdast her framm, só hár sem fialled Thabor er á medal annara fialla, og so sem Carmel, þad sem vid sióenn stendur.

19. Þú dotturenn sem byr í Egyptalande! tak þín ferda tve, þviad Noph mun í eyde løgd og upp-brennd verda, so ad engenn mun búa þar inne.

20. Egyptaland er einn miøg væn kálfur, enn slátrunar madurenn kemur af nordrenu.

21. Og þeir daglaunararner, sem þar inne búa, eru einnenn sem feiter kálfar, enn þó hliota þeir ad snúa ser, flya hver med ødrum, og fá eigi vid-stadest, þviad dagurenn þeirra óluckú mun yfer þá koma, sem er þeirra vitiunar tíme.

22. Þeir bruna þar framm, so glamrar í þeirra harneskiu, og koma med hers krapt, og flytia axer yfer hana, líka sem skogarhøggsmenn.

23. Þeir hiner somu munu so høgga í hennar skoge, (seger Drottinn) ad þad mun eigi teliande vera, þviad þeir eru fleyre enn þær eingesprettur, sem engenn fær taled.

24. Dotturenn Egyptalands stendur med skømm, þviad hún er gefenn í hendur þess fólksins af nordrenu.

25. Drottinn Zebaoth, Gud Israels, hann seger: siá þú! eg vil vitia þeirra stiornaranna af No, og Pharao, og þeirra í Egyptalande med sínum Gudum og konungum. Já! Pharao med øllum þeim sem traust høfdu á hønum.

26. Ad eg gefe þá í þeirra hendur, sem stunda epter þeirra life, og í hendur Nabuchodonosors, konungsins af Babylon, og hans þenara. Og þar epter á skall þú bygd vera, so sem fordum daga, seger Drottinn.

27. Enn þú minn þenare Jacob! óttast eigi; og þú Israel! verk obrædddur. Þviad, siá þú! eg vil hiálpa þer af því fiarlæga landenu, og þínu sæde burt úr þínu herleidingar lande. So ad Jacob skal aptur koma, og í fride vera, og gnóglegt hafa, og engenn skal skelfa hann.

28. Þar fyrer óttast eigi, minn þiónn Jacob! seger Drottinn, þviad eg em hiá þer. Vid alla þá heidingia, til hverra eg hefe burtreked þig, vil eg einn enda gerá, enn vid þig vil eg eigi neinn enda gera, helldur þá vil eg aga þig med máta, so eg láte þig þó eigi óhegndann.

## 47. Capitule.

1. Þetta er þad ord Drottins, sem skede til prophetans Jeremia, á móte Philisteis, ádur enn þad Pharao sló Gaza.

2. So seger Drottinn: siá þú! þar kemur vatn upp af nordrenu, sem gera skal eitt flód, þad sem burttaka skal bæde landed, og allt þad sem þar er inne, bæde stadena, og þá sem í þeim búa.

3. So ad fólked mun hrópa, og aller innbyggiarar í landenu ylbra, fyrer þeim gny þeirra sterkra hesta sem þar framm bruna, og fyrer bulldran þeirra vagna, og óhliodum hiolanna, so þad fedurn er skulu eigi lyta umkring sig epter børnunum, so hrædder skulu þeir verda.

4. Fyrer þeim deigenum sem kemur, til ad foreyda øllum Philisteis, og ad uppræta Tyrum og Zidon, med þeim ødrum, þeirra hiálpar mønnum. Þviad Drottinn mun nidurbrióta þá Philisteos sem epter eru ordner af þeim í eyunum Capthor.

5. Gaza skal sköllott verda, og Ascalon fordiorfud, med þeim sem epter eru ordner í þeirra dølum.

6. O þú sverd Drottins! hversu lenge þá hrífur þú? nær vill þú þá linna? far þú í þínar slídrer, og hvíl þig, og vert kirrt,

7. Enn hvernenn kann þú af ad láta, med því ad Drottinn hefir gefed þer bífalning á móte Ascalon, og sett þig á móte þeim høfnunum siáfar hafsins.

## 48. Capitule.

1. A móte Moab seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels, so: vei þeim stadnum Nobo, þviad hann er í eyde lagdur, og liggur aumlega! Kiriathaim er unnenn, sá kastalenn stendur aumlega, og er nidurrifenn.

2. Trásseð Moabs er úte, sem hann hafde á Hesbon, þviad þar hugsast vondt á móte hønum, sem er, komed! ver vilum afmá þá, so ad þeir skulu ei vera neitt folk framarmeir, og þú Madmen skalt einsenn fordiorfud verda; sverded skal koma á bak vid þig!

3. Menn heyra eitt háreyste til Horonaim, af foreydslunne og mikellre eymd.

4. Moab er sundurbrótenn; þeir heyra hans ungmenne kalla hátt.

5. Þviad þeir ganga grátande á veigenum upp til Luhit, og óvinerner heyra eitt aumlegt hróp, á veigenum nidur frá Horonaim. Sem er.

6. Hafed ydur burt, og ferded ydru lífe, enn þú munt vera so sem lyng á eydemørkenne.

7. Þar fyrer, ad þú treyster uppá þína bygging, og á þína fésiódu, þá skall þú unnenn verda, og Camos hann hlytur og hertekenn burt ad fara, med sínum prestum og høfdingum.

8. Þviad sá foreydslu madurenn skal koma yfer alla stadena, so ad þar skal eigi einn stadur undann ganga; þar skulu bæde dalerner fordiarfast, og slettlended foreydt verda, þviad Drottinn hefir sagt þad.

8. Gefed Moab fiadrer: hann mun útganga sem ad flyge hann, og hans stader skulu í eyde liggia, so ad engenn skal búa í þeim.

10. Bølvadur se, sá sem svíksamlega gerer verk Drottins! bølvadur se só, sem fyrerbydur sínu sverde ad úthella blódenu!

11. Moab hefir vered athugalaus frá barndóme sínum, og leiged

kirr á sinne dregg, og alldrei steypt ur vered úr ødru kerenu í annad, og alldrei í herleiding útfared, þar fyrer hefir hønum sinn smeckur hinn same vered, og hans lykt eigi umskipteleg orded.

12. Þar fyrer siá þú! seger Drottinn: sa tíme skal koma, ad eg vil senda Þeim þá flutnings menn, sem þá skulu burtflytia, og tæma þeirra kerølld, og ísundur brióta þeirra leigla.

13. Og Moab skal til skammar verda yfer Camos, líka so sem þad Israels hús er til skammar orded yfer Bethel, hvar uppá þeir þó treystu.

14. Hvernenn dyrfest Þer ad segia? vér erum hetiur og retter stríds menn?

15. Med þvi þó ad Moab skal foreydast, og upp skal stiged vera í hans borger, og þeirra hiner bestu karlmenn skulu hløota ofan ad ganga til slatrunar beckiins, seger sá kongurenn, sem heiter Drottinn Zebaoth.

16. Þviad ólucka Moabs mun bródlega koma, og hans ógæfa hún flyter ser miøg.

17. Kære! siáed þó aumur á hønum, þer sem búed íkringum hann, og hans nafn þeked. Seged: hvernenn er sá øfluge vondurenn, og sá hinn dyrdarlege stafurenn so sundurbrotenn?

18 Stígdu nidur frá þinne vegsemd, þú dotturenn sem byr í Dibon! og sit í þurrknum, þviad sá fordiarfarenn Moabs mun koma upp þangad til þín, og ofan rífa þína kastala.

19. Gack þú framm á veigenn, og siá til, þú sem byr í Aroer; spyr þú þá ad sem þar flya, og undann hlaupa, og seg þú: hvørsu gengur þad til?

20. Avi! Moab er í eyde lagdur og fordiarfadur! ylед og æped, kunngered þad í Arnon, ad Moab er í eyde lagdur.

21. Refsingenn er gengenn yfer þad sletta landed, sem er, yfer Holon, Jatza, Mephaath.

22. Dibon, Nebo, Beth Diblathaim.

23. Kiriathaim, Bethgamul, Bethmeon.

24. Kirioth, Bazra, og yfer alla stadena í landenu Moab, hvert þeir liggia særre eda nærre.

25. Þad horned Moabs er afhøgged, og hans armleggur er sundur brotenn, seger Drottinn.

26. Ger þú hann druckenn (þviad hann hóf sig á móte Drottne) so ad hann spye, og núe sínum høndum tilsamans, so ad hann verde einnenn til hádungar.

27. Þviad Israel hefir hloted ad vera þitt athlæge, so sem ad hefde hann vered fundenn á midal þiófa, og med þvi, ad þú talader þvílíkt á móte hønum, þá skall þú og einnenn burt.

28. Og þer innbyggiarar í Moab! yfergefed stadena, og búed í biørgunum, og gered so sem dufurnar, þær ed gera ser hreidur í þeim diúpu holunum.

29. Alla tíma hefir sagt vered af hinum ríkeláta Moab, þad hann se miøg ríkelátur, drambsomur, hofmódugur, serlátur, og forsugur.

30. Enn Drottinn seger: eg þecke vel hans reide, ad hann orkar ei so miklu, og hann tekst meira á hendur ad gera, enn hans máttur er til.

31. Þar fyrer hlyt eg ad gráta yfer Moab, og hrópa yfer allann Moab, og harma bera yfer þvi fólkenu í Kirheres. Eg hlyt ad gráta yfer Þer Jaeser!

32. Þú vínviðurenn í Sibma! Þviað þíner vínviðarkvister eru farner yferum hafed, og komner allt til þess siáfar haffins Jaeser, sá fordiarfarenn er innfallenn í þína haustvinnu, og þína vínsafnan.

33. Gleðe og unun er burt u af akrenum, og af þvi landenu Moab, og menn skulu eigi neitt vín framar troda þar. Hann sem vínberenn ísundur tredur, skal eigi meir kveda sína vísu.

34. Vegna þess herópsins í Hesbon, allt til Eleala, hvert ed hliómar inn til Jahza, frá Zoar, þeirre þrevetru kunne, inn til Horonaim, þviad þau vatnenn Nimrim skulu einnenn uppþurkast.

35. Og Drottinn seger: þar med vil eg gera einn enda við Moab, so ad þeir skulu eigi lengur offra þar á hædunum, og reykia fyrer sínum Gudum.

36. Þar fyrer gellur mitt hiarta yfer Moab, sem eitt tramet, og yfer þvi fólkenu í Kirheres hliódar mitt hiarta, sem tramet, þviad þeir gerdu ofmiked þar út af, hvar fyrer ad þeir skulu í eyde leggiast.

37. Øll høfud skulu skøllott vera, og øll skegg afrøkud. Allar hendur skulu ísundur klorast, og hver madur skal klæda sig í sekk.

38. Og þeir skulu gráta og kveina allavega í Moab, bæde á strætunum, og á ræfrunum, þviad eg hefe ísundur sleiged Moab, so sem eitt herfelegt ker, seger Drottinn.

39. O hversu er hann fordiarfadur! hversu aumlega þá gráta þeir. Hversu skammarlega þá nidur hringia þeir høfudenn, og Moab er ordenn til hádungar, og til skelfingar øllum þeim sem búa ískringum hann.

40. Þviad so seger Drottinn: siá þú! hann flygur framm sem ein ørn, og útbreider sína vænge yfer Moab.

41. Kiriath er unnenn, og þeir hinir sterku staderner eru inntekner, og hiørtunn kappanna í Moab skulu vera á þeim sama tíma sem konu hiarta í barnsótt.

42. Þviad Moab skal afmádur verda, so ad hann skal eigi neitt folk framar meir vera, þar fyrer, ad hann hefir upphafed sig á móte Drottne.

43. Hrædsla, grøf og snara kemur yfer þig, þú sem byr í Moab! seger Drottinn.

44. Hver sem umflyr hrædsluna hann mun falla í grøfena; og hver sem kemst úr grøfenne, hann mun fangenn verda í snørunne, þviad eg vil láta eitt þeirra vitiunar ár koma yfer landed Moab, seger Drottinn.

45. Þeir sem úr slagenu flya munu leita ser hiálpar í Hesbon, enn þar skal einn elldur útganga af Hesbon, og einn loge af Sihon, hver ed foreyda mun þeim plátsunum í Moab, og þvi styrialldarsama fólke.

46. Vei þer Moab! þad Camos folk er fortapad, þviad þeir hafa teked þína syne og dætur, og herleidda burtflutt.

47. Enn eg vil snúa herleidingunne Moabs á þeim epterkomande tímum, seger Drottinn. Þetta se sagt af þeirre refsingunne yfer Moab.

## 49. Capitule.

1. Á móte Ammons børnum seger Drottinn so: hefir Jsrael þá eigi nein børn? edur hefir hann engann erfingia? hvar fyrer eign-

a? Já Malchom þad landed Gad, og hans folk byr í þeirra stødum?

2. Þar fyrer siá þú! sá tíme kemur, seger Drottinn: eg vil láta heyrast eitt herhróp y. er Rabbath Ammons barna, þad hún skal í einne hrúgu í eyde liggia, og þeirra dætur skulu med ellde uppbrennd: ar verda, enn Israel skal eignast þá sem ser eignudu hann, seger Drottinn.

3. Kveina þú, o Hesbon! því Ai er nidurbrotenn. Hrópid þer dætur Rabba! og klædid ydur í sekk; harmed, og hlaupid íkringum múrveggena, því Malchom skal hertekenn burtflytiast, med sínum prestum og høfdingium.

4. Hvad treyster þú uppá þitt einge? þínar eingar eru nidursøcktar, þú hin óhlyduga dotturenn! þú sem treyster á þína fesióðu, og seger í þínu hiarta, hver þorer ad koma á móte mer?

5. Siá þú! seger Drottinn Drottinn Zebaoth! eg vil láta koma hrædslu yfer þig, af øllum þeim, sem íkringum þig búa, so ad sinn veigenn skal hver útrekenn vera, og þar skal engenn sá vera, sem samansafne þeim aptur, sem burtflúed hafa.

6. Enn þar epter vil eg snúa herleidingunne þeirra Ammons barna, seger Drottinn.

7. So seger Drottinn Zebaoth: er þar þá engenn vísdomur meire í Theman? er þar þá ecke rád hiá þeim vísu? er þeirra vísdomur so lausflegur?

8. Flyed undann; snúed ydur, og feled ydur diúpt nidur þer innbyggiarar í Dedan! því ad eg læt ógæfu koma yfer Esau, á hans vitiunar tíma.

9. Þeir sem víned saman lesa skulu koma yfer þig, þeir ed eigi munu láta þer miked epter til ad safna, og þiófar skulu yfer þig koma á náttar þele, þeir skulu fordiarfa þá nóg.

10. Því ad eg hefe gert Esau nakenn, og hans heimuglega stade opennberad, so hann kann eigi fela sig: hans sæde, hans brædur, og hans nábuar eru foreydder, so ad þar eru enger fleyre epter af þeim.

11. Enn þó þad hvad epter verdur af þínum føduleysingium, þeim vil eg unna lífsins, og þínar eckiur skulu vona á mig.

12. Því so seger Drottinn: siá þú! þeir sem þad høfdu eigi verdskulldad, ad drecka þann kaleikenn, þeir hliota ad drecka. Og þú skyllder hegningarlaus vera? þú skallt eigi óhegndur vera, helldur þá hlytur þú og einnenn ad drecka.

13. Því ad eg hefe svared vid siálfann mig, seger Drottinn: þad Bazra skal verda ein undran, smán, foreyding, og bølvan, og aller hennar stader ein eylífleg eydemørk.

14. Eg hefe heyrt af Drottne, ad þar sé einn bodskapur útsendur á medal heidingianna. Samansafned ydur, og komed hingad móte henne; búed ydur til bardaga.

15. Því siá þú! eg hefe gert þig lítelsháttar á medal heidingianna, og fyrerlitna á medal mannanna.

16. Þitt fors og hiartans hofmódur hefir sviked þig, af því þú byr í þeim biargskorunum, og hefir há biørg under þer, þó ad þú hreidrader þig so hátt sem ørnenn, þá vil eg þó hrinda þer ofann þadan, seger Drottinn.

17. So skal Edom verda í eyde, ad aller þeir sem ganga þar frammhiá, skulu undrast þad, og blystra yfer øllum hans plágum.

18. Lika sem þad Sodoma og Gomorra med sínum nágrønnum eru umvelltar, seger Drottinn: so þad engenn skal þar búa, ne neinn madur hus hafa.

19. Þviad siá þú! hann kemur upp hingad sem Leon, frá þeirre dramblátu Jordan, imóte þeim sterku lystelegu engium, þviad eg vil láta hann snarlega þangad hlaupa. Og hver veit hver sá ungr sveinnenn er, sem eg vil út búa á móte hønum, þvi hver er mer jafn? hver vill fræda mig? og hver er sá hyrderenn sem stadest getur á móte mer?

20. So heyred nú þad ráded Drottins, sem hann hefir yfer Edom, og hans hugsan, sem hann hefir yfer þeim innbyggiurunum í Theman. Hvad gillder? ef ad þeir hyrdara pilltar skulu eigi draga þá, og nidurbrióta þeirra bústade.

21. So ad jørdenn skal bifast vid, nær ed þeir falla, hver um þverann annann, og þeirra hrópan skal heyrast í hiá hafenu rauda.

22. Siá þú! hann flygur upp hingad, sem ein ørn, og hann mun útbreida sína vænge yfer Bazra. A þeim sama tíma skulu hiørtunn kappanna í Edom vera lika sem eitt konu hiarta, í barnburdar sótt.

23. Hemath og Arpad eru aumlega staddar, þær vantreysta ser, þviad þær heyra eitt illt rykte, þeir sem búa vid hafed eru so hrædder ad þeir kunna enga hvíld ad hafa.

24. Damascus er huglaus, og flyr undann, býa skelfur, og er í angist og harmkvælum, sem kona í jód sott,

25. Hverninn þá? er hann nú eigi yfergefenn, sá hinn nafnfræge, og gledelege stadurenn?

26. Þar fyrer skulu hans æskumenn þar nidurslegner liggia á hans strætum, og allt hans strídsfolks forganga, á þeim sama tíma, seger Drottinn Zebaoth.

27. Og eg vil setia elld í múrveggena til Damascum, so ad hann skal foreyda þeim herbergiunum Ben Hadad.

28. So seger Drottinn: standed upp, og fared upp í Kedar, og foreyded þeim børnunum á móte austrenu.

29. Menn skulu taka þeirra búskape og hiarder, þeirra landtiølld, øll verkfære, og þeirra úlfallda skulu þeir burtflytia, þeir skulu hrædelega kalla ad þeim allt umkring.

30. Flyed undann, hafed ydur snarlega burt þadann, byrged ydur diúpt nidur, þer Hazor innbyggiarar! seger Drottinn: þviad Nabochodonosor, kongurenn af Babylon, hefir nockud í sinne vid ydur, og hann hugsar til ydar.

31. Fared á fætur, og ferdest upp þangad, móte þvi fólke sem gnog hefir til, og ugglaust byr, seger Drottinn, þeir hafa hvorke portdyr ne hurdar steingur, og búa einer samann.

32. Þeirra úlfalldar skulu gripner verda, og þeirra hid mikla fe burtteked verda. Og eg vil burt dreifa þeim í alla vinda, sem búa í afkimunum, og af øllum áttum vil eg láta þeirra ógæfu koma yfer þá, seger Drottinn.

33. So ad Hazor skal verda dreka bæle, og ein eylífleg eydemørk, so ad engenn skal búa þar, og eigi nockur madur skal hafa þar sitt heimele.

34. Þetta er þad ord Drottins, sem skede til Jeremiam propheta, á móte Elam, í upphafe rikis stiór-

nar Zedechia, kongsins Juda, og sagde:

35. So seger Drottinn Zebaoth, siá þú! eg vil sundur brióta Elams boga, þeirra hid ædsta vellde.

36. Og eg vil láta þá fiora vindana, úr þeim fiorum áttum himensins, koma yfer þá, og eg vil burtdreifa þeim í alla vinda, so ad þar skal eigi neitt folk þad til vera, ad eigi skule þangad koma hiner burtreknu af Elam.

37. Og eg vil gera Elam dug lausann fyrer sínum óvinum, og fyrer þeim sem stunda epter þeirra lífe, og eg vil láta ógæfu koma yfer þá med minne grimmdar reide, seger Drottinn. Og eg vil senda sverded á bak til vid þá, þangad til ad eg hefe upprykt þeim.

38. Eg vil setia minn stól í Elam, og eg vil fyrerkoma þar bæde kongenum og høfdingiunum, seger Drottinn.

39. Enn á epterkomande tímum vil eg snúa herleidingunne Elam, seger Drottinn.

## 50. Capitule.

1. Þetta er þad ord sem Drottinn talade fyrer Jeremiam prophe ta, á móte Babylon, og landenu þeirra Chaldeiska.

2. Kunngered þad á medal heidenna þióda, og láted þad hlioma, seted upp merked, og láted þad hlioma, og byrged þad eigi nidre, og seged: Babylon er unnenn, Bel stendur med skømm, Merodoch er sundur broten, hennar afguder standa med skømm, og hennar skúrgod eru sundur brotenn.

3. Þviad þar ferdast eitt folk upp af nordrenu, á móte þeim, sem þeirra land land skal í eyde leggia, so ad engenn skal þar inne búa, helldur skulu bæde menn og fenadur flya burt þadann.

4. Á þeim sømu døgum, og á þeim sama tíma, seger Drottinn, skulu Israëls børn, med børnum Juda, koma og fara hingad grátande, og leita Drottins Guds þeirra.

5. Þeir munu spyria epter veigenum til Zion, og snúa ser þangad. Komed! og nálægium oss til Drottins, med einum eylífum sáttmála, sem alldrei mun forgleymdur verda.

6. Þviad mitt folk er so sem ein gløtud hiørd; þeirra hyrdarar hafa leidt þá afvega, og láted þá villast á fiøllum, so ad þeir gengu af fiøllunum ofann á hædernar, og forgleymdu so sínum hiardar húsum.

7. Allt hvad sem þá fann þad uppsvelgde þá, og þeirra óviner søgdu: ver gerum þad eigi óréttelega, af þvi þeir hafa syndgast á móte Drottne, í bústad rettelætesins, og á móte þeim Drottne sem er vonenn þeirra forfedra.

8. Flyed út af Babylon, og fared burt af Chaldea lande, og hegded ydur sem kiarnhafrar fyrer hiørdenne.

9. Þviad siá þú! eg vil uppvekia mikenn flock margra þióda, af þvi landenu imóte nordrenu, og flytia þad upp imóte Babylon, þeir skulu búa sig upp á móte henne, hverer hana skulu og vinna. Hans skeyte eru, sem eins gods strídsmanns, sem ei fara á mis vid.

10. Og landed þeirra Chaldeiska skal verda eitt herfáng, so ad aller þeir, sem þad ræna skulu þar nóg af fé, seger Drottinn.

11. Þar fyrer, ad þer glöded ydur af þvi, og hrósed ydur um þad, ad þer hafed rænt mína arfleifd, og þer stuckud upp sem feiter kálf-

ar, og hneggiudud sem sterker hestar.

12. Ydar moder stendur med storre skømm, og hún sem ydur hefir fædt, er til háđungar ordenn, siá þú! á medal heidingianna er hún hin sídsta, foreydd, þurr, og í eyde.

13. Þviad fyrer saker reide Drottins, hlytur hún óbygd og med øllu í eyde ad vera, so ad aller þeir sem framm ganga hiá Babylon skulu undrast þad, og blistra yfer øllum hennar plágum.

14. Búed ydur til, þer allar skytturnar, utann umkring Babylon; skióted uppá hana; spared eigi skeytenn, þviad hún hefir syndgast á móte Drottne.

15. Gleded ydur yfer henne allt umkring; hún hlytur ad gefa sig; hennar grundveller eru fallner; hennar múrvegger eru nidur brotner, þviad þad er hefndenn Drottins. Hefned ydar á henne; gered vid hana so sem þad hún hefir gert.

16. Uppryckted af Babylon, bæde sádmønnum, og þeim er uppskera, so ad hver snúe ser til síns folks, og hver flye burt í sit land, fyrer þvi sverdenu tyrannans.

17. Israel hlaut ad vera ein sundur tvístrud hiørd, sem Leonenn hafa burt dreift. Fyrst upp át þá kongurenn af Assyria, þar nærst nagade þá Nabochodonosor, kongurenn af Babylon.

18. Þar fyrer seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels so: siá þú! eg vil vitia heim kongsins af Babylon, og hans lands, líka sem eg hefe heim vitiad kongsins af Assyria.

19. Enn Israel vil eg flytia heim aptur til síns heimelis, so ad þeir skulu ser fædslu fá uppá Carmel og Basan, og þeirra sáler skulu saddar verda, uppá fiallenu Ephraim, og Gilead.

20. A þeim sama tíma, og á þeim døgum, skal leitad verda ad misgerdum Israels, seger Drottinn: enn þar munu engar til vera, og ad syndum Juda, og þar munu engar finnast. Þviad eg vil fyrergefa þær þeim, sem eg læt epter verda.

21. Far upp á móte þvi lande sem alla hefir hugmodad: far upp þangad imóte innbyggiurunum heimsoknarennar; eydelegg og nidur drep þeirra epterkomendur, seger Drottinn, og ger þad allt sem eg hefe boded þer.

22. Þar er eitt stríds heróp í landenu, og stor ánaud.

23. Hvernenn gengur þad til, ad sá hamarenn allrar veralldarennar er sundur brotenn og nidursleigenn?

24. Hvernenn gengur þad til, ad Babylon er so í eyde vordenn, á medal allra heidingia? eg hefe sett snøru fyrer þig Babylon! þar fyrer er þú einnenn hertekenn, ádur enn þig varde þess: þú ert fundenn og høndlúd, þviad þú hefir stært þig gegn Drottne.

25. Drottinn hefir upploked sinne hyrdslu, og frammbored vopnenn sinnar reide, þviad þessu hefir Drottinn Drottinn Zebaoth til vegar komed í lande þeirra Chaldeisku.

26. Komed hingad á móte henne, þer af endemørkunum! luked upp hennar kornhúsum; kasted henne í eina hrúgu, og foreyded hana, so ad þar verde eigi neitt epter.

27. Dreped øll hennar børn, og leided þau ofann til slátrunar becksins. Vei þeim! þviad sá dagurenn er komenn, þeirra vitiunar tíme.

28. Þar heyrest þeirra hróp sem flya, og þeirra sem undann hafa komest, úr landenu Babylon, so ad þeir kunngere í Zion hefndena Drottins, Guds vors, og hefndena hans musteris.

29. Kalled marga á móte Babylon, þer sem spanned bogana! og legged ad henne allavega, þer aktar skytturnar, og láted engann þadann komast. Gialded henne sem hún hefir verkskulldad til, gerid vid hana so sem þad, hún hefir gert, þviad hún hefir høndlad drambsamlega gegn Drottne, hinum heilaga í Israel.

30. Fyrer þad skulu hennar æskumenn falla á hennar strætum. Og aller hennar strídsmenn skulu forganga á þeim sama tíma, seger Drottinn.

31. Siá þú! þú hin drambsama! eg vil til vid þig, seger Drottinn, Drottinn Zebaoth, þviad þinn dagur er komenn, sá tímenn þinnar vitiunar.

32. Þá skal sá hinn drambsame nidur hrynia og falla, so ad engenn uppreise hann. Eg vil setia elld í hans stade, hver foreyda skal øllu þvi, hvad íkringum hann er.

33. So seger Drottinn Zebaoth: siá þú! þad Israels børn, med børnum Juda, hlióta ad líða yfergang og órettinde, og aller þeir sem þá herteknа burtflúttu hallda þeim, og vilia þá eigi lausa láta.

34. Enn þeirra frelsare er øflugur, hann heiter Drottinn Zebaoth, hann mun og frammkvæma þeirra málefne, so ad hann mun láta landed bisast, og innbyggiarana í Babylon skiálfande verda.

35. Sverded skal koma, seger Drottinn, yfer þá Chaldeisku, og yfer innbyggiarana í Babylon, yfer hennar høfdingia, og yfer hennar spásagnar menn, so ad þeir skulu ad vitleysingium verda.

36. Sverded skal koma yfer hennar hina øflugu, so ad þeir skulu duglauser verda.

37. Sverded skal koma yfer hennar hesta og vagna, og yfer allann almúgann, sem þar er inne, so ad þeir skulu verda ad konum. Sverded skal koma yfer hennar fésiódu, so ad þeir verde rænter.

38. Þurkurenn skal koma yfer hennar vatnsføll, so ad þau burt þorna, þviad þad er eitt skúrgoda land, og tráffar uppá sína hrædelega afgude.

39. Þar syrer skulu grimmleg dyr og fuglar þar inne búa, og þeir ungu strutsfuglar, og hún skal alldrei framarmeir bygd verda, og engenn skal búa í henne hedan af, um allder og af eylífu.

40. Líka sem þad Gud hefir kollkastad Sodoma og Gomorra, medur þeirra nágrønnum, seger Drottinn: so þar skal engenn inne búa, ne nockur madur þar inne hús hafa.

41. Siá þú! þar kemur eitt folk af nordrenu, marger heidingiar, og marger kongar, skulu taka sig upp frá sídu landsins.

42. Þeir hafa boga og skiølldu. Þeir eru grimmleger og ómiskunsamer; þeirra hliód eru so sem siáfar hliód; þeir ríða á hestum, tilbúner sem bardaga menn, á móte þer, þú dotturenn Babylon!

43. Nær ed kongurenn af Babylon heyrer rykted af þeim, þá mun hann láta hendur falla, hønum skal so þraungt og angursamt vid þad verda, sem konu í barnsótt.

44. Siá þú! hann kemur upp hingad, sem annað Leon, frá þeirre drambsømu Jordan, móte þeim sterku hybylum, þviad eg vil láta

hann snarlega þangað hlaupa. Og hver veit hver sá ünge sveinnenn er, sem eg vil útbua á móte henne? Því hver er mer jafn? hver vill kenna mer neðud? og hver er sá hyrðerenn, sem standa kann á móte mer?

45. So heyred nú rádagerdena Drottins, þá sem hann hefir yfer Babylon, og hans hugsaner, sem hann hefir yfer þeim jnnbyggiurunum í Chaldea lande. Hvad skal gillda, ef það hiner ungu hyrdarner skulu eigi draga þá, og foreyda þeirra bustade?

46. Og jördenn mun skiálfa út af því hárey stenu, og það mun bliósa á medal heidingianna, nær ed Babylon verdur unnenn.

## 51. Capitule.

1. So seger Drottinn: siá þú! eg vil uppvekia einn hvassann vind á móte Babylon, og á móte hennar jnnbyggiurum, þeim sem sig hafa sett á móte mer.

2. Eg vil senda út þá ed vinsa til Babylon, sem hana skulu vinsa, og hennar lande burtsópa, þeir ed alla vega skulu vera í kringum hana, á deige hennar slucku.

3. Þviað hennar Skytter munu ei skióta, og hennar bryniudu stríðsmenn skulu ei kunna að verja sig. So spared nú eigi hennar ungismenn, dreped nidur allt hennar herlid.

4. So að hiner ihelslegnu ligge drepner í Chaldea lande, og þeir hiner ígegnum lögdu á hennar strætum.

5. Þviað Jsrael og Juda skulu eigi ekkiur yfergefnar vera af þeirra Gude, Drottne Zebaoth, þviað landed þeirra hinna hefir mióg þunglega syndgast á móte hinum heilaga í Jsrael.

6. Flyed úr Babylon, so að hver biarge sinne sálu, so að þer fortapest eigi í hennar misgerninge, þviað þetta er sá hefndar tímenn Drottins, hann sem er endurgialldarenn, og hann vill endurgiallda henne.

7. Sá gull kaleikurenn í Babylon, sem alla verölldena hefir gert drucna, hann er í hende Drottins. Af hennar vine hafa drucked allar heidnar þióder, þar fyrer þá hafa aller heidingiar orded so galder.

8. Hversu skyndelega það Babylon er fallenn og nidurbrotenn! æped yfer henne; taked einnenn smyrsl til hennar sára; ef að so kynne að ske, að hún mætte læknud verda.

9. Ver læknum Babylon, enn hún vill eigi heilbrigd verda. Þar fyrer látum hana fara, og förum hver til síns lands, þviað hennar refsing tekur upp í himenenn, og nemur under skyenn.

10. Drottinn hefir frammflútt vora rettlæting. Komed! látum oss upptelia þau dadsemdarverkenn Drottins Guds vors, til Zion.

11. Já! fæged skeytenn, og tilbúed skiölldunа. Drottinn hefir uppvaked hugenn þeirra konganna af Meden, þviað hans hugsaner standa á móte Babylon, það hann vile fordiarfa hana, þviað þetta er hefndenn Drottins, hefndenn hans musteres.

12. Já! seted nú upp merkenn á múrveggiunum í Babylon; taked inn vardhölldenn; seted til vökumennena; tilskicked vaktena, þviað Drottinn hann hugsar neðud, og hann vill einnenn frammkvæma það sama, sem hann hefir talad á móte þeim jnnbyggiurunum í Babylon.

13. Þú sem byr hiá því hinn

mikla vatnenu, og hefir stora fesióðu, þín endíng er komenn, og þín ágyrnd er úte.

14. Drottinn Zebaoth hefir svarëd vid sína sál, eg vil fylla þig upp med menn, likt sem ad være þad keser, þeir skulu kveda þer vísu.

15. Hann sem gert hefir jördena fyrer sinn kraft, og tilbued jardarkringluna med sínum vísdóme, og hann sem himenenn hefir tilreidt so skickanlega.

16. Nær ed hann lyster reidarþrumunne, þá er þar noglegt vatn under himnenum. Hann uppdreger þokuna frá jardarennar enda. Hann gerer elldingar í regnenu, og lætur vindenn koma úr leynelegum áttum.

17. Aller menn eru bárar med sinne konst, og aller gullsmider standa skammader med sínar líkneskiur, þviad þeirra afguder eru svik ræde, og hafa eigi líf.

18. Þad er olldungis ecke, og svikksamlegt verk. Þeir skulu fyrerfarast, nær ed þeirra verdur vitiad.

19. Enn hann er ei so, sá sem Jacobs fesiódur er, helldur er hann sá sem alla hlute skapar, og Israel er sá stafurenn hans arfleifdar, hann heiter Drottinn Zebaoth.

20. Þú ert minn Hamar, mín her vopn: fyrer þig hefe eg ísund urbróted heidingiana, og konga ríkenn í eyde lagt.

21. Eg vil ísundur slá þína hesta og rídande menn: eg vil sundurbrióta þína vagna og vagnmenn.

22. Eg vil sundurlemia þína karlmenn og konur: eg vil ísundur lemia þína ungesmenn og meyar.

23. Eg vil sundur lemia þína hyrdara og hiördena: eg vil sundurlemia þína kotkarla og þeirra ok, eg vil sundurlemia þína höfdingia og herramenn.

24. Þviad eg vil endurgialllda Babylon, og ollum innbyggiurum Chaldeiskra, alla þeirra illsku, sem þeir hafa gert á móte Zion, fyrer ydrum augum, seger Drottinn.

25. Siá þú! eg vil til vid þig, þú hid skadsamlega fiall! þú sem fordiarfader alla verolldena, seger Drottinn, eg vil útretta mína hönd yfer þig, og vellta þer so ofann af biargenu, og eg vil gera eitt uppbrennt fiall af þer.

26. So ad þeir skulu eigi geta tekid einn hyrningar stein, edur grundvallanarstein, út af þer, helldur þá skall þú vera ein eylífleg eydemörk, seger Drottinn.

27. Seted upp merkenn í landenu; blásed í herludrana á medal heidingianna; helged þina heidnu á móte henne; kalled á móte henne þau kongarikenn, Ararat, Meni og Ascenas; tilseted höfuds menn á móte henne; hafed hestana upp hingad, sem surrande keser.

28. Helged þina heidnu á móte henne, sem er kongana af Meden, med ollum sínum höfdingium þeirra lands.

29. So ad landed skal bisa og skelfast vid, þviad þær hugsanar Drottins skulu fullkomnader verda á móte Babylon, so ad hann mun gera þad landed Babylonar ad eydemörku, so ad engenn skal þar inne búa.

30. Þær hetiurnar í Babylon, skulu eigi þora ad fara út á vollunu, helldur munu þeir hallda sig inne í sínum kostulum, þeirra hreyste er útgerd, og þeir eru vordner konur, þeirra bustadur er uppbrenndur, og þeirra slagbrandar ísundurbrótner.

31. Her hleypur einn, þar ann-

ar, hver mót ødrum, og einn sendebødenn mæter hør og þar hver ødrum, ad þeir kunngere þad kongenum af Babylon, þad hans stadur se yfer unnenn, allt til enda.

32. Og hafnernar innteknar, og flásar dikenn uppbrennd, og bardaga mennerner huglauser ordner.

33. Þviad so seger Drottinn Zebaoth, Gud Israels: dotturenn Babylon hún er líka sem eitt korn hlødu golf, nær ed þeir þreskia þar á; hennar kornskera skal snarlega koma.

34. Nabóchodonosor, kongurenn í Babylon hefir uppeted og fyrerkomed mer; hann hefir gert eitt tomt ker af mer; hann uppsvelgde mig sem einn dreke, hann uppfyllde sinn kvid af mínu besta; hann hefir útreked mig.

35. Enn nú munu koma yfer Babylon þau órettindenn, sem Babylon gerda mer, og mínu holde, seger hún sem bygger í Zion: og mitt blód yfer þá innbyggendur í Chaldea lande, seger Jerusalem.

36. Þar fyrer seger Drottinn so: siá þú! eg vil frammfylgia þínu málefne, og hefna þín; eg vil uppþurka hennar sió, og láta hennar vatnsbrunna upp þorna.

37. Og Babylon skal verda ad einnre griótþrúgu, og ad dreka bæle, ad forundran og blystran, so ad engenn skal búa þar inne.

38. Aller skulu þeir grenia sem Leon, og hrína sem ung Leon.

39. Eg vil setia þá í Hita med drykk, og vil gera þá drukna, so ad þeir skulu glader vera, og sofna eylífum svefne, af hverium þeir skulu alldrei vakna, seger Drottinn.

40. Eg vil leida þá ofann, líka sem lømb til slátrunar becks, so sem hrutana med kiarn høfrunum.

41. Hvernenn er Sesach yferunnenn? og þeir hiner nafnfrægu í allre verølldenne eru so høndlader. Hvernenn er Babylon ordenn so til forundrunar, medal heidinganna?

42. Siáfar hafed er genged yfer Babylon, og hún er hulenn af þeim fiølldanum bylgnanna þess hins sama.

43. Hennar stader eru í eyde lagder, og ordner ad þurru Eydelande, ad því landenu sem engenn byr inne, og þar ed engenn madur gengur inne.

44. Þviad eg hefe vitiad Bels í Babylon, og dreiged þad út af hans kverkum, sem hann hafde innsvelgt, og þeir hiner heidnu skulu eigi framar meir hlaupa til hans, þviad múrveggerner í Babylon eru einnenn nidurfallner.

45. Fared út mitt folk! og biarge hver sinne sálu, frá þeirre grimmdar reidenne Drottins.

46. Ydart hiarta mætte annars hiúgt verda, og hrædslufullt, af því hrópenu, sem menn munu heyra í landenu. Þviad á árenu skal þar útganga eitt hróp, og epter þad hid sama, á því ødru árenu, einnenn eitt hróp, yfer ófrike í landenu, og hver høfdingenn mun vera imóte ødrum.

47. Þar fyrer siá þú! sá tíme kemur, ad eg vil vitia afgudanna í Babylon; og allt hennar land skal verda til skammar, og hennar ihelslegnu skulu liggia þar inne.

48. Himenn og jørd, og allt hvad þar er í, skal gledia sig yfer Babylon, ad hennar foreydslu menn eru komner af nordrenu, seger Drottinn.

49. Og líka sem Babylon fellde þá ihelslegnu í Israel, so skulu þeir hiner ihelslegnu fellder verda í Babylon, í øllu landenu.

50. So fared nú burt þer sem komest hafed undann sverdenu! og teked eigi; hugsed til Drottins í fiarlægu lande, og láted Jerúsalem vera í ydru hiarta!

51. Ver vorum skammader þá ver blutum ad heyra þá forsmán, og skömmenn huide vort andlit, þá hiner annarlegu komu yfer helgedomenn í húse Drottins.

52. Þar fyrer siá þú! sá tíme kemur seger Drottinn, þad eg vil vitia hennar afguda, og þeir sem bannvæner eru af sárum skulu stynia í ǫllu landenu.

53. Og þó ad Babylon stíge upp í himeneun, og gerde sig fasta í hædunum, þá skyllde þó foreydslu menninerner koma frá mer, yfer hana, seger Drottinn.

54. Menn heyra hrópeð í Babylon, og stóra eymd í Chaldea lande.

55. Þviad Drottinn foreyder; Babylon, hann foreyder hana med so stóru hrópe og háreyste, þad hennar bylgiur, þær dynia, so sem mikel vatn.

56. Þviad foreydslu madurenn er komenn yfer Babylon, hennar hreyste menn skulu herteknar verda, hennar bogar í sundurbrótner, þviad Gud hefndarennar, Drottinn endurgelldur henne.

57. Eg vil gera hennar höfdingia og vísdoms menn, herra og höfuds menn, og strids menn, druckna, so ad þeir skulu sofna eylífum svefne, af hverum þeir skulu alldrei uppvakna, seger sá kongurenn sem heiter Drottinn Zebaoth.

58. So seger Drottinn Zebaoth, þeir múrveggerner hinnar mikln Babylon skulu nedan til grafner verda, og hennar hin háfu port skulu med ellde upptendrud verda, so þad erfided heidingianna skal til forgefens verda, og þad skal brennt verda, sem fólked uppbygde med erfidismunum.

59. Þetta er þad ord sem Jeremias prophete baud Seraia, syne Neria, sonar Mahsea, þá ed hann fór til Babylon, med Zedechia, kongenum Juda, á þvi fiorda árenu hans kongsríkes, og Seraia var einn fridsamur höfdinge.

60. Og Jeremias hann skrifade alla þessa ógæfu í eina bók, sem koma skyllde yfer Babylon, sem eru ǫll þesse ordenn, hver ed skrifud eru á móte Babylon.

61. Og Jeremias sagde til Seraiat nær þú kemur til Babylon, þá siá so til, og les ǫll þesse ord.

62. Og seg þú: Drottinn! þú hefir talad ígegn þessum stad, ad þú villder afmá hann, so ad engenn skal búa þar inne, hverke menn ne fenadur, helldur skal hann í eyde vera eylíflegana.

63. Og nær ed þú hefir útlesed bókena, þá bitt einn stein vid hana, og kasta henne so úti Phrath.

64. Og segdu so: líka so skal Babylon nidur sökt verda, og eigi upp aptur koma frá þeirra ógæfunne, sem eg vil leida yfer hana, helldur þá skal hún forganga! so langt hefir Jeremias talad.

## 52. Capitule.

1. Zedechias var eins árs og tuttugu gamall, þá ed hann vard kongur, og hann ríkte í ellefu ár til Jerusalem, hans móder het Hamutal, dotter Jeremia, af Libna.

2. Hann gerde þad sem Drottins illa líkade, líka so sem ad Joachim hafde gert.

3. Þviad reide Drottins geck yfer Jerusalem og Juda, þangad

til ad hann burtfleygde þeim frá sínu auglite, og Zedechias fell frá kongenum af Babylon.

4. Enn á þvi níunda árenu hans kongsríkis, á þeim tíunda deige hins tíunda mánadar, þá kom Nabochodonosor, kongurenn af Babylon, med allann sinn her á móte Jerusalem, og settest um hana, og garde hervirke utann umkring hana.

5. Og stadurenn var so umsetenn, allt til hins ellefta ársins kongsins Zedechia.

6. Enn á þeim níunda deigenum hins fiorda mánadar, tók hungred miøg ad vera í stadnum, og fólked í landenu hafde engann mat til meir ad eta.

7. So brutust menn inn í stadenn, og aller strídsmenn flydu undann, og fóru af stadnum á náttarþele, um þann veigenn á portenu, á millum tveggia múrveggia, sem er í hiá konungsins alldingarde. Enn þeir Chaldeisku láu ikringum stadenn.

8. Og þá ed þeir fóru út, veigenn ad eydemørkenne, þá sokte herenn þeirra Chaldeisku epter kongenum, og tóku Zedechiam á þeim vøllum hiá Jericho, þá tv'stradest allt hans lid burt frá hønum.

9. Og þeir gripu kongenn, og høfdu hann upp til kongsins af Babylon, í Riblath, sem liggur í landenu Hemath, hann sagde dóm yfer hønum.

10. Þar let kongurenn af Babylon drepa børnenn Zedechiæ fyrer hans augum, hann sló og ihel alla høfdingia Juda, í Riblath.

11. Enn á Zedechia let hann stinga út augunn, og binda hann med tveimur vidium, og kongurenn af Babylon flutte hann so til Babylon, og sette hann í fangelse, þangad til ad hann andadest.

12. A þeim tíunda deigenum hins fimmta mánadarins, sem var þad nítianda áred Nabochodonosors, kongsins af Babylon, kom Nebusar Adan, høfuds madurenn, sem med jafnade var hiá kongenum í Babylon, til Jerusalem.

13. Og brennde upp hús Drottins, og kongsins hús, og øll húsenn í Jerusalem: øll þau stóru húsenn brennde hann upp med ellde.

14. Og allur sá herenn þeirra Chaldeisku, sem var hiá høfudsmannenum, nidur rifu múrveggena, kringum alla Jerusalem.

15. Enn þad óríka fólked, og annad folk, sem enn var epter í stadnum, og þeir sem genged høfdu á hendur kongenum af Babylon, og þad annad handverks fólk sem epter var, þá flutte Nebusar Adan, høfuds madurenn, herteknа burt.

16. Og af þvi fátæka fólkenu á lands byggdenne, let Nebusar Adan høfuds madurenn vera víngards menn og akurkárla.

17. Enn þá kopar stólpana í húse Drottins, og stólana, og þad kopar hafed í húse Drottins, sundurbrutu Chaldeisker, og fluttu allann þann málmenn til Babylon.

18. Og katlana, skeifarnar, hnífana, mundlaugarnar, matkrokana, og øll þau koparkerenn sem menn pløgudu ad hafa til Guds þiónustu, þá tóku þeir burtu.

19. Þar til med tók høfudsmadurenn allt þad burt sem gull og silfur var, bæde bikara, glodarker, munnlaugar, katla, liosastiaka, skeider og skáler.

20. Þá tvo stólpana, þad eina hafed, þá tolf kopar uxanna, sem

i stadenn stólenna stódu, hvera Salomon kongur let gera til húss Drottins. Malmurenn af ollum þessum kerum var so mikell, ad hann vard eigi veigenn.

21. Enn þeir tveir stólpar, var hver um sig atian álna hár, og ein snura, tolf alna laung, vafdest í kringum þá, og hán var fiogra fingra þyck, og hol innann.

22. Og uppá hverum fyrer sig stód einn kopar hnappur, fimm alna hár, og þar voru gerd utan umkring hvern hnappenn granata eple, oll samann út af kopar, og einn stólpenn var sem hinn annar, og þau granata eplenn líka so.

23. Enn þau granata eplenn voru sex og níutíu þar uppá, og oll granata eplenu voru hundrad á einne listu allt umkring.

24. Og hofuds madurenn tók prestenn Seraia, af þeirre fyrstu skipunenne, og prestenn Zephania, af þeirre annare skipunenne, og þriá dyravorduna.

25. Og einn hird svein út af stadnum, sem var settur yfer striđsfólked, og sio menn, þá sem vera áttu hiá kongenum, þeir ed fundust í stadnum, þar til med Sopher, þann hershofdingiann, sem vanur var ad velia út leidangurs lided, þar til sextíu menn af lands fólkenu, sem fundust í stadnum.

26. Þessa tók Nebusar Adan, hofuds madurenn, og flutte þá til kongsins af Babylon, í Riblath.

27. Og kongurenn af Babylon drap þá í Ribloth, sem liggur í landenu Hemath. Þannenn vard Juda burt fluttur af sínu lande.

28. Þetta er þad folk sem Nabochodonosor burt flutte, sem er á þvi siounda árenu, þriár þusunder, þriá og tutugu Gydinga.

29. Enn á þvi átianda árenu Nabochodonosors, atta hundrud, þriátíu og tvær sáler, af Jerusalem.

30. Og á þvi þridia og tutugasta árenu Nabochodonosors burtflutte Nebusar Adan, hofuds madurenn, sio hundrud, fiorutíu og fimm sáler, af Juda. Allar sáler eru fiórar þusunder og sex hundrud.

31. Enn á þvi þritugasta og siounda árenu, epter þad ed Joachin, kongurenn Juda, var burtfluttur, á þeim tutugasta og fimmta deige hins tolfta mánadar, upphóf Evil Merodach, kongurenn af Babylon, á þvi árenu sem hann vard kongur, hofud Joachins, kongsins af Juda, og let hann út af myrkastofunne.

32. Og talade vinsamlega vid hann, og sette hans stól yfer stólum þeirra konganna sem hiá honum voru í Babylon.

33. Og hann umskipte vid hann þeim klædnade sem í myrkastofunne hafde hann hast, so ad hann át med honum alla tíma, so lenge sem hann lifde.

34. Og honum vard alltíd gefed sitt uppheldе af kongenum til Babylon, so sem honum var til einkad, þá stund hann lifde, allt til hans endalyktar.

Ender Prophetans Jeremiæ.

# Harmagrutur Jeremiæ.

## 1. Capitule.

1. Hvernenn liggur sú borgenn í eyde, sem full var med folk? hún er ordenn sem ein eckia, sú sem var ein høfdingia kvinna á medal þeirra heidnu, og drottningenn í løndunum hlytur nú skattgilld ad vera.

2. Hún grætur á nóttunne, so ad tárenn renna ofan epter hennar kinnbeinum, þar er engenn á medal allra hennar vina, sem hugsvale henne; aller hennar náungar fyrerlyta hana, og eru ordner hennar óviner.

3. Juda er herteken í eymd og þungann þrældom: hún bygger a medal heidingianna, og finnur enga hvílld. Aller hennar offóknarmenn hallda hana illa.

4. Veigerner til Zion liggia í eyde, af því, ad þangad kemur engenn upp til neinnrar hátídar, allar hennar portdyr standa audar. Hennar kennemenn þeir andvarpa; hennar meyar eru aumlegar á ad siá, og hún er harmþrungenn.

5. Hennar mótstodu menn eru uppi hafner, hennar óvinum vegnar vel, þviad Drottinn hefir fyllt hana med eymd, fyrer hennar mikellra synda saker, og hennar børn eru hertekenn burtfarenn, fyrer óvinenum.

6. Oll prýdenn er burt frá dotturenne Zion. Hennar høfdingiar eru líka sem þeir hrutar ed ecke fódur finna, og ganga þreytter fyrer þeim ed þá frammreka.

7. Jerusalem þeinker á þessum tíma, hversu aumleg og fyrerlitleg hún er, og hversu mikel auðæfe hún hefir haft frá fyrndenni, med því, ad allt hennar folk liggur þar nidre under óvinunum, og engenn er sá sem henne hiálpar. Hennar óviner fiá sína lysting á henne, og spotta hennar sabbaths daga.

8. Jerusalem hefir syndgast, þar fyrer hlytur hún ad vera sem ein saurug kvinna. Aller þeir sem hana heidrudu, þeir forsmá hana nú, med því ad þeir siá hennar vanvirding, enn hún blæs þungann, og snyr aptur á bak.

9. Hennar óhreinende þau loda vid falldenn á hennar klædum. Hún hafde eigi meint, ad þad munde so eiga ad ganga henne ad sídurstu, henne er so hrædelegana nidur hrundeð, og þar med hefir hún engann þann sem henne hugsvalar. Æ Drottinn! lyttu á mína eymd, þviad óvinurenn hann þykest so mikell.

10. Ovinurenn hefir lagt sína hønd á alla hennar dýr gripe, þviad hún hlaut ad horfa á þad, ad hiner heidnu gengu inn í hennar helgedóm, um hvad þú hefir þó bodeð, ad þeir skylldu eigi innkoma í þína samkundu.

11. Allt hennar folk andvarpar, og leitar ser fædslu. Þeir gefa út sín klenodia fyrer mat, ad þeir kunne so ad líf gafsluna. Æ Drottinn! alyt þad, og hygg ad því, hversu fyrerlitleg eg em ordenn.

12. Ydur sege eg þad, øllum þeim sem her framm hiá ganga, skodeð þad, og hyggeð ad, hvert þar er nockur sorg, so sem mín sorg, sem eg hefe í ratad, þviad Drottinn hefir fyllt mig af eymd, á þeim deigenum sinnar grimmdar reide.

13. Hann hefir sendt í mín bein einn elld út af hædunum, og lætur hann geysa. Hann hefir sett nett fyrer mínar fætur, og hnepyt

mig so tilbaka, hann hefir gert mig
ad einu ørbæle, so ad eg hlyt dag=
lega ad sorga.
14. Mínar Þungar synder eru
uppvaknadar fyrer hans refsing,
og eru í hópum komnar yfer minn
hala, so allur minn mannskapur
lídur í burt, Drottinn hefir so út=
reidt mig, Þad eg kann eigi upp
ad komast.
15. Drottin hefir nidur troded
alla mína ofluga, Þá sem eg hafde:
hann hefir láted úthrópa eit helge=
hald yfer mer, til ad fordiarfa mí=
na kaska yngesmenn. Drottinn
hann let meyarnar dótturennar
Juda troda vínÞrúguna.
16. Þar fyrer græt eg so, og
bæde mín augu fliota af vatne, af
Því, ad sá hugsvalarenn, sem end=
urlífga skyllde mína sálu, er mer
fiarlægur; mín børn eru í burt,
Þviad óvinurenn hefir seinged sig=
urenn.
17. Zion breider ut sínar hend=
ur, og Þar er Þó engenn sem hug=
svalar henne, Þviad Drottinn skipa=
de óvinum Jacobs í kringum hann,
so ad Jerusalem hlaut ad vera á
millum Þeirra, líka sem ein saurug
kvinna.
18. Drottin er retlátur, Þvíad
eg hlydde eigi hans munne: heyred
Þad allt folk, og hygged ad minne
sorg: mínar meyar og yngismenn
eru í burtgeingner í herleidinguna.
19. Eg kallade á mína vine, enn
Þeir tældu mig; míner prestar og
ølldungar í stadnum eru vanmegn=
ader, Þviad Þeir ganga og bidia
ser brauds, so ad Þeir kunne Þar
med ad endurlífga sínar sáler.
20. Oho Drottinn! álýtÞu Þo
í hvørre Þrengingu ad eg em, so
ad mer er aumt í kvidnum Þar af;
mitt hiarta Þad flæst um í mínu
lífe, Þviad eg em miøg harm=
Þrungenn: ute Þá hefir sverded, og
í husenu Þá hefir daudenn gert
mig til einnar ecklu.
21. Menn heyra Þad vel, ad eg
andvarpa, og eg hefe Þó engann
hugsvalara. Aller míner óviner
heyra mína ógiæfu, og gledia sig:
Þad gerer Þú, so lát Þó Þann dag
koma, sem Þú út hrópar, ad Þeim
skule ganga líka sem mer.
22. Lát alla Þeirra illsku koma
fyrer Þig, og útreid Þá, so sem Þú
hefir útreidt mig, fyrer allra mín=
ne misgerda saker, Þviad mín and=
varpan er mikel, og mitt hiarta er
harmÞrunged!

## 2. Capitule.

1. Hvernen hefir Drottinn yfer=
aused dotturena Zion med sínne
reide? hann hefir útkastad byrdenne
Israels, af himnum ofann á jørde=
na; hann hugsade eigi til sínnar
fótskarar, á Þeim deigenum sínnar
reide.
2. Drottinn hefir miskunar=
laust afmád alla bústadena Ja=
cobs: hann hefir í sínne bræde
nidur broted allar festingar dott=
urennar Juda, og gert jafnslettar
jørdunne: hann hefir óhelgad bæde
hennar kongsrike, og hennar høfd=
ingia.
3. Hann hefir í sundur broted
øll Israels horn í sínne grimmdar=
reide: hann dró sína hægre hønd
á bak vid sig, Þá ed óvinurenn kom,
og hefir uppkveikt Þann elld í Ja=
cob, sem eyder umhverfis.
4. Han hefir upp spennt sinn
boga, sem einn óvinur: hann hefir
leidt sína hægre hønd, sem einn
mótstødumadur; og hefir nidur=
drepid allt Þad, sem lystelegt var ad
siá, og utaused sinne grimmdar=
reide sem ellde, í bústadena dott=
urennar Zion.

5. Drottenn er líka sem einn óvinur, hann hefir Israel í eyde lagt, hann hefir afmád øll hennar herberge, og hefir fordiarfad hennar sterka kastala, hann hefir gert dotturenns Juda miked kvein og sorg.

6. Han hefir um koll kastad sinne tialldbúd, so sem einum garde, og fordiarfad sina bústad, Drottinn hefir láted gleyma bæde hátídum, og sabbathsdøgum, i Zion, og láted vanvirdast, í sinne grimmdar reide, bæde konungenn og kennemannenn.

7. Drottinn hefir burt kastad sínu alltare, og bølvad sínum helgedóme; hann hefir gefed murveggena hennar herbergia í óvina hendur, so ad þeir hafa háhliodad í huse Drottins, líka sem á einum hátídardeige.

8. Drottinn hefir hugsad ad fordiarfa þá murveggena dotturennar Zion; hann hefir dreiged þann mælestreingenn þar út yfer, og hann snere eigi sinne hende þadann í frá, fyrr enn hann hafde afmád hana, brundelenn standa sárgrætelega, og múrveggerner þeir liggia hørmuglega.

9. Hennar portdyr liggia diúpt í jørdunne; hann í sundurbraut hennar slagbranda, og gerde þá ad engu: hennar konungur og høfdingiar eru á medal heidingianna, þar ed þeir mega eigi idka løgmáled, og hennar prophetar hafa engar sióner af Drottne.

10. Þeirølldungarner dotturennar Zion liggia á jørdu, og eru kirrer: þeir ausa molldardupte yfer hofud sér, og klæda sig i seckium, meyarnar af Jerusalem heingia sin høfud til jardar.

11. Eg hefe so nær utgráted mín augu, so ad mitt lijf þad tekur ad sárna þar af: mín lifur er uthellt á jørdena, yfer eymdenne dotturennar míns fólks, þá ed brióstmylkingarner og smábørnenn vanmegnudust á strætunum í stadnum.

12. Þá ed þau søgdu til sinna mædra: hvar er braud og vín? þá tid þau vanmegnudust á strætunum í stødunum, líka sem ad væru þau særd til ólífes, og gáfu upp øndena í fadme sinna mædra.

13. Æi þú dotturenn Jerusalem! vid hvern skal eg jafna þer? og fyrer hvert skal eg reikna þig? þu jungfruenn dotturenn Zion! hverium skal eg samlíkia þig? hvar med ad eg kynne ad hugsvala þer, þviad þinn skade er stór, sem eitt siáfarhaf. Hver kann ad græda þig?

14. Þíner prophetar hafa predikad þer ónytar og fávíslegar siøner, og hafa eigi opennberad þer þínar misgerder, hvar med þeir hefdu mátt frasnúa þinne herleidingu, helldur þá hafa þeir predikad fyrer þer lygesamlegar predikaner, med hverium þeir hafa predikad þig út af landenu.

15. Aller þeir sem þar ganga framm hiá, klappa høndum tilsamans; blystra ad þer, og skaka sín høfud yfer dotturenne Jerusalem. er þad þá stadurenn af hverinm þeir søgdu, ad han være sá allra prýdilegaste; af hverium þad allt landed gladde sig?

16. Aller þíner óvíner uppluka sínum munne á móte þer, blystra ad þer, gnísta tønnum, og segia: Aha! ver høfum afmád hana, þad er sá dagurenn sem ver hefum gyrnst, ver høfum þad og feinged, og ver høfum þad lifad.

17. Drottinn hefir frammkvæmt þad, hvad hønum bió í sinne: hann hefir fullkomnad sín ord, þau sem hann hafde fyrer langre æfe boded,

miskunarlaust hefir hann í eyde lagt, óvinena hefir hann gladt yfer þer, og upphafed þad horned þinna óvina.

18. Heirra hiarta þad hrópar til Drottins. O þú murveggurenn dotturennar Zion! lát þú taren ofaun renna nótt og dag, líka sem annann læk: lát þú og eige af því, og þinn augasteirn linne þvi eigi.

19. Statt upp á náttarþele, og hrópa; úthell þínu hiarta fyrer augsýn Drottins, á þeirre fyrstu vaktenne, so sem vatne: hallt upp þínum hondum í móte honum, vegna sálnanna þinna úngbarna, sem vanmegnudust af húngre, framan á ollum strætunum.

20. Drottinn! siá þad, og hygg ad því, hvern ad þú hefir so forðiarfad! skylldu qvinnurnar eta ávortenn sins kvidar, þau ungu bornenn spannarlaung? skylldu prophetarner og prestarner so niðurdrepner verda, í helgedomenum Drottins?

21. Þar láu á strætunum, á jordunne, unger og gamler: mínar meyar og yngesmenn eru fallner fyrer sverde, hverla þú hefir ehe'slegeð, á þeim deigenum þinnar reide, þú hefir slátrad vægdarlaust.

22. Þú kallader mína óvine útann um kring mig, so sem á einn hátídardag, so ad engenn komst undann, eda vard epter á þeim reidennar dæge Drottins, þá sem eg hafde fostrad og uppfædt, þeim haja ovinerner fyrerfared.

## 3. Capitule.

1. Eg em einn aumur madur, sem hlyt ad siá vønd hans grimmdarreide!

2. Hann leidde mig, og let mig ganga í myrkre, og ei í liose.

3. Hann snere sinne hende á móte mer, og hann hondlar allt odruvíse vid mig allann dagenn.

4. Hann hefir gert mitt hollð og horund gamallt, og í sundur broted mín bein.

5. Hann byggde í kringum mig, og hefir umvafed mig med galla og mædu.

6. Hann hefir lagt mig í myrkred, so sem hina daudu í verolldenne.

7. Hann hefir kune múrad mig, so ad eg kann eigi út ad koma, og lagde mig i hørd fiotur.

8. Og enn þó eg kallade og kveinade, þá tilbyrgde hann sín eyru fyrer minne bæn.

9. Hann hefir tilmúrad minn veg, med hoggnum steinum, og umhillt mínum stigum.

10. Hann sat um mig sem eitt biarn-dyr, líka sem annad leon í filsnesu.

11. Hann let mig misfara á veigenum; hann í sundur skipte mer, og gerde mig ad engu.

12. Hann spennte sinn boga, og sette mig upp til skotmáls fyrer pílune.

13. Han let fliúta af pílnakoffrenu í min nyru.

14. Eg er ein hádung ollu mínu folke, og daglegur þeirra kvedskapur.

15. Hann sadde mig med beiskleika, og gaf mer rammar juter ad drecka.

16. Hann í sundurmolade mínar tennur i smá parta: han vellte mer í osku.

17. Min sál er í burt drifenn fra fridnum, eg hlyt ad forgleyma þvi ena goda.

18. Eg sagde: minn mættur er burtu, og min von til Drottins.

19. Hugleid þú! hversu eg em

aumleg og fyrerlitenn, bryckiud
med galle og beiskum jurtum.

20. Þar mun þü hugsa uppá,
þvíad mín sál seger mer þad.

21. Eg legg þad uppá hiartad,
þar fyrer vona eg enn nú.

22. Gödgyrne Drottins er þad,
ad ver erum eigiølldungis út
gerder: hans miskunseme hefir enn
engann enda.

23. Helldur er hún ny hvern
morgun, og þinn trúleike er mikell.

24. Drottin er mitt hluttskip-
te, seger min sál, þar fyrer vil eg
vona til hans.

25. Þvíad Drottin er ástsam-
legur, vid þá sem vona uppá hann,
og þeim sálum sem leita ad honum.

26. Þad er einn merkelegur
hlutur, ad vera þolenmódur, og
vona uppá hiálpena Drottins.

27. Þad er manneuum einn
merkelegur hlutur ad bera oked í
sínum ungdóme.

28. So ad sá se þolenmódur
sem yfergefen er, nær ed nockud
yfer hann fellur.

29. Og þad hann slinge sínum
munne í molldardupt, og vænte
uppá vonena.

30. Og láte slá sig so uppá
kinnvangann, og þad hønum se
mikel forsmán til løgd.

31. Þvíad Drottinn burt tek-
ur eigi eylífflegana.

32. Helldur so, hann hrigger
ad víiu, enn hann tiker sína misk-
unseme aptur, epter sinne mik-
ellre miskun.

33. Þvíad hann plágar, og
hrigger mannenn eigi út af hiarta.

34. Líka sem ad villde hann alla
þá føngudu á jørdunne ølldungis
nidur troda under sínar fætur.

35. Og láta eins manns rett-
arfar begiast fýrer hinum allra-
hæsta.

36. Og láta eins manns mál-
efne rangfærast, líka sem ad Drott-
inn sæe þad eigi.

37. Hver þyrfest þad ad segia,
ad slíkt mune ske, án Drottins
skipunar?

38. Og þad hverke illt ne gott
kome af munne hins allrahæ-
sta?

39. Því mogla þá menneruer
so í lífenu? hver einn mogle í
mote sinne synd.

40. Og látum oss rannsaka og
uppleita vora breytne, og snúa
oss til Drottins.

41. Látum oss upplypta vorum
hiørtum, med vorum høndum, til
Guds á himnum.

43. Ver, ver hefum syndgast, og
vered óhlyduger, þar fyrer gerder
þú rett, ad þú hlífer eigi.

43. Helldur yferhellter þú og
offsøkter oss med reide, og deyder
oss án miskunsemdar.

44. Þú hulder þig med einu
skye, so ad þar kunne engenn bæn
í gegnum ad koma.

45. Þú hefir gert oss ad saur
og óhreinendum á medal folksins.

46. Aller vorer óviner opna
sína munna á mote oss.

47. Ver nidur þrickiunst og
þvingunst med skelfing og sorg.

48. Mín augu renna med
táralækium, yfer þeirre eymdenne
dotturennar míns folks.

49. Mín augu þau slióta, og
kunna eigi af ad láta, þvíad þar
lætur alldrei af.

50. Þangad til ad Drottinn
skodar og ser þar til af himnum.

51. Mitt auga farender mínu
lífe í burt, fyrer saker dótturennar
míns stadar.

52. Míner óviner elltu mig sem
annann fugl, ad saklausu.

53. Þeir fyrerkomu mínum líf-

ama í einne grøf, og køstudu steinum á mig.

54. Þeir yferjusu og so mitt høfud med vatne, þá sagde eg: nú em eg med øllu burt.

55. Enn eg kallade á þitt nafn, Drottinn! nedan úr gryfiunne.

56. Og þú heyrder mína raust. Byrg eigi þín eyru fyrer minne andvarpan, og hrópe.

57. Náleg þig til mín, nær ed eg kalla til þín, og seg þú: óttast þú eigi!

58. Sæk þú Drottinn! søkum minnar sálar, og frelsa mitt líf.

59. Drottinn! álýt þú þad hver órettinde mig ske, og hiálpa mer til míns rettar.

60. Þú ser allar þeirra hefnder og allar þeirra hugsaner á móte mer.

61. Drottinn! þú heyrer þeirra forsmán, og allar þeirra hugsaner yfer mer.

62. Varernar minna mótstødumanna, og þeirra daglega uppdiktan á móte mer.

63. Siá þú þó, hvert ad þeir setiast nidur, eda standa þeir upp, þá kveda þeir vísur um mig.

64. Drottinn! umbúna þeim þad, so sem þeir hafa verdskulldad.

65. Lát þeirra hiarta skelfast, og formerkia þína bølvan.

66. Offæk þá med grimmd, og afmá þá under himnenum Drottins.

## 4. Capitule.

1. Hvernenn er þad gulled so med øllu blackt, og þad skæra gulled so liott orded? og steinarner helgedómsins liggia so ísundurdreifder framm á øllum strætunum.

2. Þau edlú børnenn Zion, jøfn virdt vid gull, hvernenn eru þau nú samjøfnud vid leirpottana, sem leir pottasmidurenn gerer?

3. Drekarner þeir retta brióstenn ad sínum ungum, og gefa þeim ad søga, enn dotturenn míns folks hlytur ad vera so miskunarlaus, so sem einn strútsfugl á eydemørku.

4. Tungann brióstbarnanna toller vid gómana á þeim af þersta; þau ungu børnenn beidast brauds, og þar er engenn sá sem þeim brióte þad.

5. Þeir sem ádur fyrre átu vid lystelegasta, þeir vanmegnast nú á strætunum: þeir sem ádur voru klædder í silke, þeir hlióta ad liggia nú í óhreinwendum.

6. Sá misgerningurenn dotturennar míns folks er stærre enn synder Sodoma, þeirre sem hastarlega var umturnad, og þar kom engenn hønd til.

7. Hennar Nezarei voru hreinne enn sniór, og skærare enn miólk: þeirra yferlitur var raudare enn kurel, þeirra ásiána var líka sem Saphirus.

8. Enn nú er þeirra yferlitur døckur af sorta, so ad menn þeckia þá eigi á strætunum; þeirra skinn þad loder vid beinenn, og þeir eru so þurrer sem tre.

9. Þeim vegnade betur sem drepner voru med sverdenu, helldur enn þeim, sem dóu út af hungrenu, þeir sem vanmegnudust, og ihel stungner voru, vegna, þess ávaxtarleysesins akurlandanna.

10. Hinar hiartsárustu kvinnur hlutu siálfar ad sióda sín børn, so ad þær hefdu nockud ad eta, í þeirre eymdenne dotturennar míns folks.

11. Drottinn hefir fullkomnad sína reide; hann hefir úthellt sinne grimmdar brede; hann uppkveikte

einn ellð í Zion, hver ed foreyðde hennar grundvallan.

12. Konungarner á jardríke hefdu því eigi trúad, eigi helldur allt fólked í verølldunne, þad sá mótstandarenn, og óvinurenn skyllde inferdast um Jerusalems borg árhlid.

13. Enn þad er sked fyrer synda saker hennar propheta, og syrer misgerda saker hennar presta, sem úthelltu rettlátra manna blóde þar inne.

14. Þeir ráfudu hingad og þangad á strætunum, líka sem sjónlauser menn, og voru saurgader med blóde, so ad þeir máttu eigi snerta þau klædenn hinna annara.

15. Enn þeir kølludu til þeirra: víked frá, þer hiner saurugu! víked frá, víked frá, óhræred eigi neitt! þviad þeir forduðust þá, og flýdu fyrer þeim, so ad sagt var, einnenn á medal heidingianna, þeir verda þar eigi lenge.

16. Þar fyrer hefir reide Drottins ísundurdreist þeim, og vill eigi meir siá til þeirra, af því ad þeir eigi í heidri høfdu prestana, og gerdu enga miskunseme vidølldungana.

17. Þó góndu samt vor augu epter þeirre hegoma hiálpenne, þangad til ad þau voru þreytt ordenn, þá tíd ver vonudum á þad fólked sem oss kunne þó eigi ad hiálpa.

18. Menn elltu oss, so ad ver þordum eigi ad ganga á vorum vegum, þá kom einnenn vor endíng, vorer dagar eru úte, vor endíng er komenn.

19. Vorer ofsóknarar voru fliotare enn ernir under himnenum, þeir ofsóttu oss á fiøllunum, og sátu um oss í eydemørkenne.

20. Sá hinn smurde Drottins, sem var vort traust, vard herteke nn, þá þeir foreyddu oss, á hverum ver høfdum vort traust, ad ver villdum lifa under hans skugga, á medal heidingianna.

21. Jú, gled þig, og vert glad vær, þú dotturenn Edom! þu sem byr í landenu Uz, þviad kaleikurenn skal einnenn koma yfer þig, þú hlýtur einnenn ad verda druckenn og nakenn.

22. Enn þá dotturenn Zion! þinn misgerningur hefir einn enda, hann mun ei optar láta þig burt flytia. Enn þíns misgerníngs, þú dotturenn Edom! mun hann vitia, og openbera so þína synd.

## 5. Capitule.

1. Minnstu þess, Drottinn! hvernenn þad oss veiter: álýt þú og hygg ad vorre forsmán.

2. Vor arfleifd er ordenn þeim annarlegum ad hlutskipte, og vort hús hinum útlendsku.

3. Ver erum fødurlauser, og høfum engann fødur, vorar mædur eru sem eckiur.

4. Vort eiged vatn hliótum ver ad drecka fyrer peninga: vorn vid verda menn ad láta sækia bitaladann.

5. Þeir keira oss framm yfer hverann hálsenn, og nær ed ver erum uppgefner af mæde, þá láta þeir oss þó enga hvíld hafa.

6. Ver høfum ordeð ad gefa oss under þá í Egyptalande, og í Assyria, so ad ver mættum sadder verda af braude.

7. Vorer fedur þeir syndgudu, og þeir eru eigi meir fyrer hende, og ver hliótum ad giallda þeirra misgerninga.

8. Þrælar drottna yfer oss, og

þar er engenn sem frelsar oss út af þeirra hende.

9. Ver hlióstum ad sækia vort braud med vorum líss háska, fyrer sverdenu á eydemørkenne.

10. Vort hørund er forbrennt, so sem í odrum ofne, af þvi hrædelega hungrenu.

11. Þeir hafa vanvirdt kvinnurnar í Zion, og þær meyarnar í stødunum Juda.

12. Þeir høfdingiarner eru hneigder af þeim, og þeir hafa enga virding gert personu þeirra olldrudu.

13. Hiner ungu karl menn hlutu ad mala kvarnar steinenum, og hiner smáu ad hrasa under vidarburdenum.

14. Hiner gømlu sitia eigi lengur í port dyrunum, og hiner ungu idka eigi meirn ein hliódsære.

15. Vor hiartans glede hefir einn enda, vor dans er umsnúenn í sorgar kvæde.

16. Koronann vers høfuds er affallenn, o vei! ad ver høfum so syndgast.

17. Þar fyrer er einnenn vort hiarta harmþrúnged, og vor augu eru ordenn.

18. Fyrer saker þess fiallsins Zion, ad þad liggur so í eyde, so ad refar hlaupa þar yferum.

19. Enn þú Drottinn! sem ert eylíflega, og þinn veldis stoll um alldur og eylífu,

20. Hvar fyrer vill þú so ølldungis forgleyma oss, og med øllu yfergefa oss so lenge?

21. Drottinn! leid oss aptur til þín, so ad ver mættum komast heim aptur: endurnya vora daga, líka sem fordum.

22. Þviad þú hefir kastad oss burt, og ert ordenn ofreidur vid oss.

Ender Harmagrútsins Jeremiæ.

# Prophetenn Ezechiel.

## I. Capitule.

1. A því þrítugasta árenu, þann fimmta dagenn þess fiorda mánadar, þá eg var á medal þeirra hertekenu, vid vatned Chebar, opnadest himinenn, og Gud vísade mer syn.

2. Sá same fimmte dagurenn mánadarens var rett líka so á því fimmta árenu, epter þad ad Joachim, konungurenn af Juda, var hertekenn burtslúttr.

3. Þá skede ord Drottins til Ezechielem, sonar sonar Busi, prestsins í Chaldea lande, vid vatned Chebar, þar kom hønd Drottins yfer hann.

4. Og eg sá, og siá þú! ad þar kom einn stormvindur af nordrenu, med miklum skyslóka, fullum af ellde, so þad leiptrade allt umkring, og midt í þeim sama elldenum var so sem eitt skært liós.

5. Og þar innann í ein mind, þvillíkast sem fiogur dyr, og mindenn eins á medal þeirra var sem eins manns.

6. Og hvert þeirra hafde fiorar ásionur, og fiora vænge.

7. Og þeirra fótlegger stódu retter, enn þeirra fætur voru so sem uxa fætur, og lióumudu so sem annad skært slet latun.

8. Og høfdu manns hendur un-

ber sínum vængum, á þeim þeirra fiórum áttum.

9. Þvíad þau høfdu øll fiogur sínar ásiónur, og sína vænge, og þeir sømu vængerner nádu hver til annars. Og nær ed þau gengu, þá þurftu þau eigi ad snúa ser, helldur hvert sem þau gengu, þá gengu þau þad beint sem þau horfdu.

10. Þeirra ásiónur, á þeim fiorum, til hægre hlidar, voru líka sem einn madur og eitt Leon; enn á þeim fiorum, til vinstre hlidar, voru þeirra ásiónur líka sem einn uxe, og ein ørn.

11. Og þeirra ásiónur og vænger voru ofann til adskilder, so þad tveir vængerner slóu tilsamans, og med tveimur vængiunum hulldu þau sína líkame.

12. Og hvert ed þau gengu, þá gengu þau þad beint framm fyrer sig, enn þau gengu í þá áttena þangad sem vindurenn stód, og þurftu eigi ad snúa ser vid, nær ed þau gengu.

13. Og dyrenn voru so álits ad siá sem logande kol, þau ed brenna, og líka sem blis, sem geck á millum dyranna. Enn sá elldurenn gaf eina birtu af ser, og út af þeim elldenum geck ein leiptran.

14. Og þau dyrenn hlupu hingad og þangad, so sem ein logande leiptran.

15. Enn sem eg sá nú so dyrenn; siá þá! þá stód þar eitt hiól á jørdunne, hiá þeim fiorum dyrunum, og þad var so ad siá, sem fiogur hiól.

16. Og þau sømu hiólenn voru líka sem annar turkous, og øll þau fiogur voru eitt ødru líkt, og þau voru eitt ødru líkt, og þau voru so ad lyta líka sem þad hvert hióled være innann í ødru.

17. Nær ed þaug skylldu af stad ganga, þá kunnu þau ad ganga í allar fiorar átternar, og þau þurftu eigi ad snúa ser vid, þá ed þau gengu,

18. Rendurnar og þeirra hiól voru hrædelegar, og so þeirra rendur voru fullar med augu allt umkring, á øllum þeim fiorum hiólunum.

19. Og nær ed þau dyrenn gengu, þá gengu og einnenn hiólenn hiá þeim; og nær ed dyrenn liptudu ser upp frá iørdunni, þá liftudu ser og einnenn hiólenn.

20. Hvadann sem vindurenn stód á, þadann gengu þau og einnenn; og hiólenn liptudu ser upp hiá þeim, þvíad þad var einn lifande vindur í hiólunum.

21. Nær ed þau gengu, þá gengu og einnen þesse; nær ed þau stódu, þá stódu og einnenn þesse. Og nær ed þau liptudu ser upp frá jørdunne, þá liptudu ser og einnenn hiólenn hiá þeim, þvíad þar var einn lifande vindur í hiólunum.

22. Enn fyrer ofann dyrenn, var því líkast sem himenn være so sem ógnarlegur crystallus, út breiddur midt yfer þeim.

23. So ad þeirra vænger stódu under himnenum, hverer á móte ødrum, og tveir vængerner skylldu hvers þeirra líkama.

24. Og eg heyrde vængianna þyt, líka sem mikels vatnsfalls, og so sem gny hins almáttuga, nær ed þau gengu, og so sem eitt stórt hulldur í einum her. Enn nær þau stódu kirr, þá letu þau vængena nidur.

25. Og nær ed þau stódu kirr, og letu vængena so nidur, þá lioftudu þar reidarþrúmur í himnenum uppe yfer þeim.

26. Og upp yfer þeim himnenum, sem yfer þeim var, þá var so

ad lyta sem annar Saphirus, líka sem einn vellðis stóll: Þar sat einn á þeim sama stóle, so álits sem madur.

27. Og eg sá, ad þad var eins sem eitt skært liós, og þad var innann allt umkring so ad lyta, sem elldur, upp frá hans lendum, og ofann frá, sá eg, ad þad lyste sem elldur allt íkringum hann.

28. Líka so sem þad regnbogenn er álits í skyunum, nær ed dögg hefir vered, eins so lyste þad allt umkring. Þesse var siónenn þeirrar dyrdarennar Drottins. Og þá ed eg hafde þad sed, fell eg framm á mína ásiónu, og eg heyrde einn tala.

## 2. Capitule.

1. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! stat þú uppá þínar fætur, þá vil eg tala vid þig.

2. Og þá hann talade so vid mig, þá lifnade eg vid aptur, og stod uppá mínar fætur, og hlydde hönum sem talade vid mig.

3. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! eg sende þig til Israels barna, til þess fráfnúna lydsins, sem mer er fráhorfeun ordenn: þeir, og þeirra forfedur, hafa gert mer ímóte, allt til þessa dags.

4. Enn þau börn, til hverra ad eg sende þig, hafa hörd höfud, og forhördnud hiörtu; þú skallt segia til þeirra: so seger Drottinn, Drottinn.

5. Hvert helldur þeir hlyda þvi eda eigi, þad er eitt óhlydugt hús, þá skulu þeir þó samt vita, ad þar er spámadur á medal þeirra.

6. Og þú mannsins sonur! skallt ei hrædast þá, og eigi óttast þeirra ord. Þeir eru andviger, og þvass er þyrnar hiá þer og þú byr á medal Scorpiona, enn þú skallt eigi hrædast fyrer þeirra ordum, og eigi helldur óttast fyrer þeirra tillite, þó ad þeir seu samt eitt óhlydugt hús.

7. Helldur skall þú segia þeim mín ord, hvert helldur ad þeir hlyda þeim edur eigi, þviad þad er eitt óhlydugt folk.

8. Enn þú mannsins sonur! heyr þú hvad eg sege þer, og hvert óhlyduga húsed er. Luk þinum munne upp, og et þad, hvad eg mun gefa þer.

9. Og eg sá: og siá þú! Þar var ein hönd útrett á móte mer, sem hafde eitt samanbroted bref.

10. Þad útbreidde hann fyrer mer, og þad var skrifad utann og innann, og þar inne stód harmaklögun, ach og eymdar vei.

11. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! et þú þad sem fyrer þer er, sem er þetta bref, og gack so burt, og predika fyrer Israels húse.

12. Þá upplauk eg minum munne, og hann gaf mer þad brefed ad eta.

13. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur skallt eta þetta bref, sem eg gef þer í þinn kvid, og fylla þinn kvid þar med. Þá át eg þad, og þad var so sætt í minum munne sem hunáng.

14. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! gack burt til Israels húss, og predika þeim mín ord.

15. Þvi eg sende þig eigi til þess folks sem framande mál hefir, og eitt ókunnugt túngutæle, helldur til hússens Israels.

16. Iá, vissulega! eigi til þess mikla múga folksins, sem hefir annarlegt mál, og óskilianlegt túngutæle, hverra ord ad þú skilur eigi. Og þó ad so være, ad eg sende þig enn til þeirra, þá munu þeir þó giarnann heyra þer.

17. Enn Israels hús vill eigi heyra þer, þviad þeir vilia eigi

heyra sjálfum mer. Þviad ger vallt Jsraels hús hefir hørd enne, og hardúdug hiörtu.

18. Enn þó hefe eg gert þitt andlit hardt ígegn þeirra andlite, og þitt enne ígegn þeirra ennum.

19. Já! eg hefe gert þitt enne so hardt sem einn Adamas, hver ed hardare er enn klettur. Þar fyrer óttast þú eigi, og vert eigi hræddur vid þá, þó ad þeir sieu soddann eitt óhlydugt hús.

## 3. Capitule.

1. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! høndla øll mín ord í þinu hiarta, og lát þer í eyrum leda hvad eg sege þer.

2. Og geck burt til þeirra hertekinu þíns folks, og predika fyrer þeim, og segdu til þeirra: so seger Drottinn Drottinn! hvert helldur ad þeir heyra þad eda eigi.

3. Og einn vindur tók mig upp, og eg heyrde á bak mer aptur einn gny, so sem eins mikels jardskiálf ta (lofud se dyrdenn Drottins í sínum stad!)

4. Og þar var einn midur af vængiunum dyranna, þeirra sem numu tilsamans, og bulldran hiólanna, sem voru þar hardt nærre þeim, og gnyr eins mikels jardskiálfta.

5. Þá tók vindurenn mig upp, og flutte mig burt. Og eg fór þangad, og var miøg hræddur, enn hønd Drottins helt mer fast.

6. Og eg kom til þeirra hertekinu, sem biuggu hiá vatnenu Chebar, þá ed mandelenn stódu í Abib mánade, og eg sette mig nidur hiá þeim sem þar sátu, og eg var þar á medal þeirra miøg hriggur, í siø daga.

7. Og er þeir siø dagar voru umlidnir, þá skede ord Drottins til mín, og sagde:

8. Þú mannsins sonur! eg hefe sett þig til eins vardhallds manns yfer Jsraels hús, þú skallt heyra ordet af mínum munne, og vara þá vid minna vegna.

9. Nær ed eg sege til hins óguðlega: þu skallt dauda deya! og þú varar hann ei vid, og seger honum þad eigi, so ad sá hinn ógudlege kunne ad vakta sig fyrer sínu ógudlegu athæfe, so ad hann meige lífe hallda, þá mun hinn ógudlege deya fyrer sinna synda saker, enn hans blóds mun eg krefia af þinne hende.

10. Enn varer þú hinn ógudlega vid, og hann snyr ser eigi burt frá sínu ógudlegu athæfe og veige, þá mun hann deya fyrer sinna syndasaker, enn þína sál hefir þú frelsad.

11. Og nær ed einn rettlátur snyr ser burt frá sínu rettlæte, og gierer ranglega, þá vil eg láta hann reka sig þar á, so ad hann deye, þviad med því þú hefir eigi varad hann vid, þá mun hann deya fyrer sinna synda saker, og hans rettvíse, sem hann hefir gert, mun ei álitinn vera, enn eg mun krefia hans blóds af þinne hende.

12. Enn ef þú varar hinn rettláta vid, ad hann skule eigi syndgast, og hann syndgost og einnenn eigi, þá skal hann lifa, þviad hann let vara sig vid, og þú hefir frelsad þína sál.

13. Og hønd Drottins kom þar yfer mig, og hann sagde til mín: rís upp! og gack út á slettlendet, þar vil eg tala vid þig.

14. Og eg bió mig til, og geck út á slettlended. Og siá þú! ad þar stód dyrdenn Drottins, eins líka

sem eg sá hiá vatnenu Chebar, og eg fell nidur á mína asiónu.

15. Og eg vard endurnærdur, og stód uppá mínar fætur, og hann talade vid mig, og sagde til mín: geck þú burt, og lyk þig inne í þínu húse.

16. Og þú mannsins sonur: siá þú! menn munu leggia bønd á þig, og binda þig þar med, so ad þú skuler eigi hlaupast um.

17. Og þína tungu vil eg láta tolla vid gomenn á þer, so ad þú skallt mállaus vera, og geta eigi lengur funded ad vid þá, þviad þad er eitt óhlydugt hús.

18. Enn nær eg tala vid þig, þá vil eg uppluka þínum munne, so ad þú skallt segia til þeirra: so seger Drottinn Drottinn! hver hann heyrer, sá heyre þad: hver hann heyrer þar eigi um, sá skeyte þvi eigi, þviad þad er eitt óhlydugt hús.

## 4. Capitule.

1. Og þú mannsins sonur! tak þú einn tígulstein, og legg hann framm fyrer þig, og mála þar uppá borgena Jerúsalem.

2. Og ger þar herbúder utan umkring, og ger þar eitt hervirke íkringum, og graf þar einn virkes vegg íkringum, og skipa þar fylkíngum utan umkring, og set þar hruta alla vega íkringum hana.

3. Enn þú tak þer eina iárnpønnu, og lát þad vera einn iárn múr á millum þín og borgarennar, og hef þitt andlit upp á móte henne, og sit um hana. Þad sama skal vera eitt teikn Israels húse.

4. Þú skallt og leggia þig á þína hina vinstre hlid, og leggia þar uppí misgerninga hússens Israels, so marga daga sem þú liggur þar uppá, so lenge skall þú bera þeirra misgerder.

5. Enn eg vil gera þer árenn þeirra misgerninga ad daga tølu, sem eru þríuhundrud og níutíu dagar, so lenge þá skall þú bera þær misgerdernar hússins Israels.

6. Og nær ed þú hefir þad fullkomnad þá skall þú liggia á hina hægre hlid, og þú skallt bera misgerdernar hússens Juda í fiorutíu daga, þviad eg gef þer her og einnenn einn dag fyrer eitt ár.

7. Og venda þínu andlite, og þínum berum armlegg, ígegn þeirre umsetenne Jerúsalem, og spádu á móte henne.

8. Og siá þú! eg vil leggia bønd á þig, so ad þú skallt eigi kunna ad snúa þer frá einnre hlidenne til annarar, allt þangad til ad þú hefir fullkomnad þína umsáturs daga.

9. So tak nú til þín hveite, bygg, bauner, grión, hirsgrión, og rugmiøl, og legg þetta alltsamann í eitt ker, og ger þer so mørg braud þar af, sem þú skallt liggia daganna til á þína hlid, so ad þú hafer til fædu af þeim í þríu hundrud og níutíu daga.

10. So ad þinn matur skal vera tuttugu sekel ad þyngd, sem þú skallt hvern dag eta. Sa mikels skall þú neyta frá þeim einum tímanum til annars.

11. Þú skallt og drecka vatn epter skammte, sem er hinn siótta part út af hin, og þad skall þú og einnenn drecka frá einum tímanum til annars.

12. Bygg køku skall þú eta, þá sem þú skallt steikia fyrer þeirra augum, vid manna þreck.

13. Og Drottinn sagde: líka so skulu Israels børn eta sitt sáur-

ugt braud á medal heidingianna, til hverra eg hefe burtreked þá.

14. Enn eg sagde: o Drottinn Drottinn! siá þú: mín sál er enn nú eigi saurug ordenn, Þviad frá barndóme mínum, allt til þessa dags, þá hefi eg eigi neitt hræ edur sunduriifed eted, og alldrei þá hefir þar enn neitt saurugt kiot komed í minn munn.

15. Þá sagde hann til mín: siá þú! eg vil leysa þer ad þú taker nauta tad fyrer manna þreck, og gerir þitt braud þar vid.

16. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! siá þú! eg vil burttaka nægdena braudsins í Jerusalem, so ad þeir skulu eta braud epter vigt, og med eymdar neyd, og drecka vatned af skammte, og med eymdar neyd.

17. Af þvi, ad þar skal þrióta bæde braud og vatn, og hver skal harma med ødrum, og vanmegnast so í sínum misgerningum.

## 5. Capitule.

1. Og þú mannsins sonur! tak þú eitt sverd, þad sem er so hvast sem einn hár hnífur, og drag þad yfer þitt høfud og skegg, og tak sídann eina meta skál, og ísundur skipt þvi so þar med.

2. Þann einn þridiungenn skallt þú uppbrenna med ellde, midt í stadnum, nær ed þeir umsáturs dagarner eru úte. Tak þann annann þridiungenn, og slá þú hann allt umkring med sverdenu. Þann seinasta þridiungenn skall þú utdreifa í vindenn so þad eg skule ryckia út sverdenu epter þeim.

3. Enn þú tak nockud líted út af því, og bitt þad í kápublad þitt.

4. Og tak þú sídan nockud út af því, og kasta þvi út á elldenn, og uppbrenn þad med ellde: þar út af skal koma einn elldur yfer allt Israels hús.

5. So seger Drottinn Drottinn: Þad er Jerusalem, sem eg hefe sett á medal heidingianna, og þad landed allt umkring hana.

6. Enn hún umskipte mínu løgmále í ógudlega lærdoma, meir enn heidingiarner, og mínum rettindum, meir enn þau løndenn, sem þar liggia allt umkring hana. Þvi þeir burtkasta mínu løgmále, og vilia eigi lifa epter mínum rettindum.

7. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: fyrst ad þer gered þad frekara enn heidingiarner, sem eru íkringum ydur, og lifed eigi epter mínum bodordum, og gered eigi epter mínum rettindum, helldur breyted þer epter sidveniu heidingianna, þeirra sem eru íkringum ydur.

8. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: siá þú! eg vil til vid þig og so, eg vil og láta ganga rettenn yfer þig, so ad heidingiarner skulu siá uppá.

9. Og eg vil so hondla vid þig, sem eg enn alldrei gerde, og eigi hedann frá gera mun, fyrer allra þinna svívirdinga saker.

10. So ad í þer skulu forelldrarner eta sín eigenn børn, og børnenn sína forelldra, og eg vil láta soddann rettarfar ganga yfer þig, ad aller þeir sem epter lifa af þer, þá skulu útdreifast í alla vinda.

11. Þar fyrer, so sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn: af þvi, ad þú hefir saurgad minn helgedom, med allshåttudum svívirdingum og afgudum, fyrer þad vil eg og sunderslá þig, og mitt auga skal eigi vægia þer, og eg vil eigi nádugur vera þer.

12. Þridiungurenn af þer skal deya í drepsótt, og af hungre ad engu verda, og sá annar þridiungar skal falla fyrer sverde allt í kring þig, og þann hinn sídarsta þridiungenn vil eg í sundur dreifa í alla vinda, og sverdenu útryckia epter þeim.

13. So skal mín reide fullkomnast, og mín heiptargrimd frammkvæmast yfer þeim, ad ed kunne so ad hefna mín, og þeir skulu fornema þad, ad eg Drottinn hefe talad þetta í minne vandlætingu, nær ed eg hefe frammkvæmt mína grimmd vidur þá.

14. Eg vil setia þig til eins eydebóls, og til forsmánar fyrer heidingnum, sem eru í kringum þig, fyrer allra þeirra augsyn sem þar ganga framm hiá.

15. Og þú skallt verda ein hádung, forsmán, epterdæme og forundran, fyrer øllum þeim heidingiunum, sem eru í kringum þig, þá nær ad eg læt retten ganga yfer þig med reide, grimmd og straffe, (eg Drottinn sege þad.)

16. Og nær ed eg skyt þeim húngursins meinsembar skeytum til þeirra, sem skadsamleg skulu vera, og eg skyt þeim út, ydur til fordiørfunar, og læt so húngred alltiafnt magnast yfer ydur, og burtsvipte nægdenne braudsins.

17. Já, eg vil senda húngur og grimm villudyr á medal ydar, þau ed ydur skulu gera barnlausa, og þar skal ganga drepsót og blód á medal þín, og eg vil leida sverded yfer þig. Eg Drottinn hefe þetta talad.

## 6. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

2. Þú mannsins sonur! snú þinu auglite ígegn fiøllunum Israels, og spádu á móte þeim.

3. Og segþu: Þer Israels fiøll! heyred ord Drottins, Drottins, so seger Drottinn, Drottinn, bæde til fiallanna og hædanna, bæde til lækianna og dalanna: siá þú! eg vil innflytia sverded yfer ydur, og foreyda so ydrar hæder.

4. So ad ydar ølturu skulu eydeleggiast, og ydrir afguder í sundur brotner verda. Og eg vil láta ihel slá ydra líkame fyrer líkneskiunum.

5. Já, eg vil fella líkame Israels barna, fyrer ydrum líkneskium, og eg vil í sundurdreifa ydrum beinum í kringum ydar ølltøru.

6. Hvar ed þer búed, þar skulu staderner í eyde verda, og þær hæderner ad óbyggdum. Þviad þeir munu ydar ølltøru foreyda, og eydeleggia, og nidurbriota ydra afgude, og ad engu gera þá, og sundur slá ydrar líkneskiur, og ydar stiptaner afmá.

7. Og hiner ihelslegnu skulu liggia þar á medal ydar, so ad þer skulud finna þad, ad eg se Drottinn.

8. Enn nockra vil eg láta epter verda af ydur, sem undann sverdenu skulu komast, á medal heidingianna, þá ad eg hefe nu í sundur dreift ydur í løndunum.

9. Þeir hiner sømu, sem epter eru vordner af ydur, munu hugsa til mín, á medal þiódanna. Þar sem þeir hlióta herteknet ad vera, þá ad eg hefe sundur sleiged þeirra hóruhiarta, sem burtvikn framer, og þeirra hóruaugu, sem skygndu epter sínum skurgodum, og þeir skulu idrást sinnar illsku, sem þeir hafa framed, med allshátiudum svívirdingum.

10. Og þeir skulu fornema þad,

ad eg em Drottinn, og hefe þad eigi til forgefins talad, ad gera þeim soddann ógiæfu.

11. So seger Drottinn Drottinn, slá þú þínum høndum saman, og stappa þínum fótum nidur, og seg: vei yfer øllum svívirdingum illskunnar í húse Israels! þar fyrer skulu þeir falla fyrer sverde, hungre og drepsott.

12. Hann hver ad fiarlægur er skal deya af drepsott; og hinn sem nálægur er, skal falla fyrer sverde: enn hann, hver ed epter er ordenn, og er þar frá verndadur, skal deya af hungre. So vil eg nu fullkomna mína grimmdarreide á medal þeirra.

13. So ad þer skulud finna þad, ad eg em Drottinn, nær ed hiner óhelslegnu utaf þeim liggia þar, á medal þeirra afguda, allt um kring þeirra ølturu, á øllum hædum, og á øllum fiøllum, og under øllum grænum triám, og under øllum þickum eykum, í hverium stødum þeir færdu sínar ilmande fórner, fyrer allskyns skurgodum.

14. Eg vil utretta mína hønd á móte þeim, og gera landed tomt og í eyde, í frá þeirre eydemørkenne allt til Diblath, hvar ed þeir búa, og þeir skulu finna þad, ad eg em Drottinn.

## 7. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

2. Þu mannsins sonur! so seger Drottinn Drottinn, af landenu Israel: endenn kemur, sá endenn yfer allar fiorar álfur landsins.

3. Nú kemur endenn yfer þig, hviad eg vil utsenda mína reide yfer þig, og eg mun dæma þig, epter því sem þú hefir forþenad til, og eg vil gefa þer hvad øllum þínum svívirdingum heyrer.

4. Mitt auga skal eigi spara þig, ne vægia þer, helldur vil eg gefa þer epter því, sem þú hefir forþenad til, og þínar svívirdingar skulu hiá þer nidur koma, so ad þer skulud fornema ad eg em Drottinn.

5. So seger Drottinn Drottinn, siá þú! ein ógiæfann kemur epter adra.

6. Enden kemur, sá enderenn kemur, hann er vaknadur yfer þer, siá þú! hann kemur.

7. Hann gengur upp nú þegar, og brytst framm yfer þig, þú landsins innbyggiare! tídenn kemur, sá hørmunga dagurenn er í nánd, so ad þar mun engenn saungur á fiøllunum vera.

8. Snarlega þá vil eg nu úthella minne heiptarbræde yfer þig, og fullkomna so mína reide á þer, og eg vil dæma þig, epter því sem þú hefir forþenad, og gefa þer þad sem øllum þínum svívirdingum heyrer.

9. Mitt auga skal eigi hlífa þer, og eg vil eigi líkasamur vera, helldur skal eg gefa þer so sem þú hefir forþenad, og þínar svívirdingar skulu nidurkoma á medal þín, so ad þer skulud fornema þad eg se Drottinn, sem slær ydur.

10. Siá þú dagurenn! siá þú! hann kemur hingad, hann brytst framm: vøndurenn blomgast, og sá hinn stollte hann grænkast.

11. Tyrannenn hefir reidubúed sig til vandar, yfer hinum ógudlegu, so ad engen af þeim, edur af þeirra folke, ne af þeirra flocke, skal nockud traust hafa.

12. Þar fyrer kemur sá tímenn, og sá dagurenn tekur ed nálægiast. Hann hver ed kauper gledest eigi,

og hinn sá ed selur syrge eigi, þvi reidenn mun koma yfer allann hennar mannsiøld.

13. Þar fyrer skal hann sá sem selur, eigi hugsa epter sinum útløgdum jemunum, þviad sá sem þá lifer, hann skal bíhallda þvi. Þviad spádómurenn, yfer øllum hennar mannfiølda, skal eigi til baka ganga; engenn skal sínu lífe bíhallda, fyrer sinna misgerda saker.

14. Láted þá blása í herludrana, og tilbúa alla hlute, þó mun þar engenn útfara til Bardagans. Þviad min grimmd gengur yfer allann þeirra mannfiøld.

15. Sverded gengur á strætunum, drepsottenn og hungred það gengur í husunum. Hann sem er á akrenum, skal deya fyrer sverdenu, og hver sem ad er í stadnum, hann skal drepsottenn og hungred upp svelgia.

16. Og hver ed undann getur sluped af þeim, sá mun á fiollum vera, og so sem dúfur í dølunum, þær sem allar kyrtia sín á mille, hver sem einn fyrer sinna misgerda saker.

17. Allra hendur skulu nidur síga, og øll kne skulu so óstødug standa, sem vatn.

18. Og þeir munu umgyrda sig seckium, og yferaustast med hrædslu, og øll andlit skulu hrigsleg ad siá, og allra høfud skulu skøllott verda.

19. Þeir munu útkasta sínu silfre á goturnar, og akta sitt gull sem óhreinende, þviad þeirra silfur og gull mun eigi frelsa þá á þeim reidennar deige Drottins. Og þeir skulu þó eigi sedia sínar sáler þar med, og eigi fylla sinn kvid þar af, þviad það var þeim ein hneixlan til sinna misgerda.

20. Þeir gerdu af sínum edlu dyrgripum, sem þeir skrýddust med, líkneskiur sinna svívirdinga og skúrgoda, þar fyrer þá vil eg gera þeim það sama ad óhreinendum.

21. Og eg vil gefa það í ókunnugra hendur, so ad þeir skulu ræna því, og til blutskiptis þeim óguðlegu á jørdu, so ad þeir skulu saurga það.

22. Eg vil snúa mínu andlite burt fradann, so ad þeir skulu saurga mína siársiódu, já! ræningiar skulu koma þar yfer, og saurgá það.

23. Ger þú vidiur, þviad landed er fullt med blódskulld, og stadurenn fullur af mótþróa.

24. So mun eg láta koma þá hina verstu á medal heidingianna, so ad þeir skulu eignast þeirra hus, og eg vil gera einn enda á því dramblæte hinna voldugu, og saurga þeirra kyrkiur.

25. Foreydslu madurenn kemur, þá munu þeir leita fridarens, og hann mun eigi þar vera.

26. Eitt slised mun koma epter annad, og ein tídendenn epter annur, þá munu þeir spyria ad einne sión hiá prophetunum, enn þar mun hverke vera løgmál hiá prestunum, ne rád hiá ølldungunum.

27. Kongurenn mun hriggur vera, og høfdingiarner munu í sorgar búninge klæddir, og folksins hendur í landenu munu duglausar vera. Eg vil hondla vid þá so sem ad þeir hafa lifad til; og eg vil dæma þá, so sem þeir hafa verdskulldad, so ad þeir skulu fornema það ad eg em Drottinn.

## 8. Capitule.

1. Og það skede so, á því siøtta árenu, þann fimmta daginn í þeim siøtta mánudenum, ad eg sat í mínu

húse, og ølldungarner af Juda sátu fyrer mer: þar fell hønd Drottins, Drottins yfer mig.

2. Og siá þú! ad eg sá þad sem var under hans lendum, þad var lika sem einn elldur. Enn fyrer ofann hans lendar var þad sem skynande geislar.

3. Og hann útrette líka sem eina hønd, og tók í háred á mínu høfde. Þá flútte einn vindur mig á millum himens og jardar, og flútte mig til Jerusalem, í einnre Guds syn, til þeirra innre dyranna, sem standa imóte nordrenu, þar ed sat ein líkneskia til stríds-vid húsherrann.

4. Og siá þú! ad þar var dyrdenn Guds Israels, so sem ad eg hafde sed hana ádur á akrenum.

5. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! upplypt þínum augum á móte nordrenu, og þá ed eg upplypte mínum augum ímóte nordrenu: siá þú! þá sat þar gegnt nordrenu þad óþocka líknesked, hiá portdyrunum alltaresins, rett þar sem inn er genged.

6. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! ser þú einnenn hvad þesser þeir gera? sem er þá miklu svívirdingena, sem húsed Israel gerer her, ad þeir hrífa mig langt burt frá mínum helgedóme, enn þú skallt enn siá miklu stærre svívirdingar.

7. Og hann flútte mig ad dyrum forgardsins; þar sá eg, og siá þú! ad þar var ein hola inn í veggenn.

8. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! graf þú inn ígegnum veggenn: og þá eg grof ígegnum veggenn, siá þú! þá voru þar einar dyr.

9. Og hann sagde til mín: gack þú þar inn, og skoda þær vondar svívirdingar sem þeir fremia her.

10. Og sem eg kom þangad inn, og skodade: siá þú! þá voru þar allsins líkneskiur, orma og dyra, og eigi utan andstygder, og allskyns afguder hússens Israels voru alla vegana umkring gerder á veggiunum.

11. Frámme fyrer hverum ad stódu siotíu menn, af ølldungunum hússens Israels, og Jasania, Saphans sonur, stód einnenn á mille þeirra, og hver af þeim hafde sitt reykelsis ker í hende, og þar geck upp ein þick þoka af reykelsenu.

12. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! ser þú hvad ølldungarner hússens Israels þeir gera í myrkrenu, hver í sínu prydelega herberge? þviad þeir segia: Drottinn, hann ser oss eigi, helldur hefir Drottinn yfergefed landed.

13. Og hann sagde til mín: Þú skallt enn nú siá miklu stærre svívirdingar, sem þeir gera.

14. Og hann leidde mig inn til þeirra dyranna í hús Drottins, sem stódu móti nordrenu, og siá þú! þar sátu konur, sem gretu yfer Thamus.

15. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! ser þú þetta? Þó skaltu enn nú siá stærre svívirdingar enn þessar eru.

16. Og hann leidde mig inn í innra gardenn á húse Drottins, og siá þú! ad fyrer musteresins dyrum Drottins, á millum fordyranna og alltaresins, þar voru nær fimm og tuttugu menn, sem sneru bakenu vid mustere Drottins, og sínum andlitum á móte austrenu, og þeir tilbádu móte sólarennar uppgángi.

17. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! ser þú þetta? hvert

er húsenu Juda þetta enn oflíted, ad gera þer allar sodvann svívirdingar? Þar ed þeir fremia þó eigi utann yfergang og órettinde í ollu landenu, og fara til, og reita mig og so til reide. Og siá þú, ad þeir hallda vínvidarqvistum ad nosunum.

18. Þar fyrer vil eg og so handla vidur þá medur grimmdarreide, og mitt auga skal eigi spara þá, og eg vil eigi miskunsamur vera. Og þó ad þeir kalle enn nú med hárre raustu fyrer mínum eyrum, þá vil eg þó eigi heyra þá.

## 9. Capitule.

1. Og hann kallade med hárre raustu fyrer mínum eyrum, og sagde: lát vitiunena stadarens nálægiast, og hver einn skal hafa daudlegt vopn í sinne hende!

2. Og siá þú! þar komu sex menn á veigenum, hingad frá því yferportenu, sem stendur mót nordrenu, og hver þeirra hafde eitt skadlegt vopn í sinne hende. Enn þar var einn á medal þeirra sem línklæde á ser hafde, og einn skriffæra vid sína sídu. Og þeir gengu þangad inn, og stódu hiá koparalltarenu.

3. Og dyrden Guds Jsraels lyptе ser upp frá þeim cherub, yfer hverium hun var, under hvelfingu hússens, og kallade á þann sem í línklædenu var, og skriffærann hafde vid sína sídu.

4. Og Drottinn sagde til hans: gack þú í gegnum staden Jerusalem, og teikna med einu teikne í ennum þess folksins, sem stynia, og aumka sig yfer ollum þeim svívirdingum, sem þar inne ské.

5. Enn hann sagde til hinna annara, so eg heyrde: ganged epter honum í gegnum stadenn, og sláed þár ibland; ydar augu skulu eigi vægia ne þirma.

6. Sláed bæde gamla og unga, Meyar, konur og born, alla til dauds. Enn einga af þeim skulud þer áhræra, sem teikned hafa. Enn takid fyrst til á mínum helgedome. Og þeir upphófu á því gamla fólkenu, sem þar var fyrer húsenu.

7. Og hann sagde til þeirra: saurged húsed, og fylled forgardenn med daudum líkamum; ganged út. Og þeir gengu út, og slóu í stadnum nidur.

8. Og þá ed mannfalled var skeд, þá var eg enn epter ordenu. Og eg fell framm á mína asiónu, kallade og sagde: oh Drottinn! Drottinn! villt þú þá fyrerfara þeim ollum sem epter eru vordner í Jsrael? fyrst þú útheller so þinno reide yfer Jerusalem.

9. Og hann sagde til mín: sú misgerd hussens Jsraels og Juda er mikels til ofstór; þar er eigi utann ofríke í landenu, og ranginde í stadnum, þviad þeir segia: Drottinn hefir yfergefed landed, og Drottinn hann ser oss eigi.

10. Þar fyrer skal mitt auga eigi spara; eg vil og eigi vera nádugur, helldur þá skal eg kasta þeirra gerninge yfer hofud þeim.

11. Og siá þú! ad sá madurenn sem í línenu var klæddur, og skriffærann hafde vid sína sídu, svarade, og sagde: eg hefe so gert, sem þú skipader mer.

## 10. Capitule.

1. Og eg sá, og siá þú! á himnum upp yfer hofdenu cherubim, var þad líka álits sem annar saphirus, og þar uppyfer var þad líka so, til ad siá, sem einn velldisstóll.

2. Og hann sagde til þess mannsins í línklædunum: gack þú inn

á millum hiólanna, under cherub, og tak þínar hendur fullar af glóande kolum, sem ad eru á mille cherubim, og dreif þeim út yfer stadenn. Og hann geck þangad inn, so ad eg sá, ad sá hinn same geck þar inn.

3. Enn cherubim stódu hægrameigenn í husenu, og forgardurenn var innan til fullur af þoku.

4. Og dyrdenn Drottins upplypte ser fra cherub, til hvölfins á húsenu, og húsed vard fullt af þoku, enn forgardurenn fylltest med lepptran af dyrd Drottins.

5. Og þyturenn vængianna þeirra cherubim heyrdest allt út yfer forgardenn, líka sem raustenn almáttugs G. 93, nær ed hann talar.

6. Og þá ed hann hafde boded þeim mannenum í línklædunum, og sagt: tak þá elldenn á millum hiólanna under cherubim, þá geck sá hinn same inn, og stód hiá hiólunum.

7. Og cherub útrette sína hond á millum þeirra cherubim til elldsins, þess sem var á millum cherubim, og tók þar af, og feck í hendur mannenum í línklædunum. Hann tók vid því, og geck út.

8. Og þad syndest á þeim cherubim, líkasem ein manns hond, under þeirra vængium.

9. Og eg sá, og siá þú! ad þar stódu fiogur hiól hiá cherubim, hiá hverium cherub eitt hiól, og hiólenn voru so til ad siá, líka sem einn turkous.

10. Og oll fiogur voru þau, þad eina lísa sem hid annad, líka so sem hvert hiólid være í odru.

11. Nær ed þau skylldu nú ganga af stad, þá kunnu þau oll ad ganga í sínar fiorar átter, og þurftu ei ad snúa ser vid, þá ed þau gengu, helldur, hvert þad hid fyrsta geck, þangad gengu hin epter, og þurftu eigi ad snúa ser vid, ásamt med sínum gervollum líkama, hriggbondum og vængium.

12. Og hiólenn voru full med augum, allt um kring, á ollum fiorum hiólunum.

13. Og hann kallade til hiólanna, galgal, so ad eg heyrde þad.

14. Hvert þeirra hafde fiogur andliti; þad fyrsta andlited var eins cherubs, þad annad var eins manns, þid þridia eins leons, fiorda einnar arnar.

15. Og þeir cherubim sveimudu hátt upp. Þetta er þad sama dyred sem eg sá hiá vatnenu Chebar. Nær ed cherubim gengu, þá gengu og einnen hiólenn hiá þeim.

16. Og nær ed cherubim hreifdu sínum vængium, ad þeir loptudu ser fra jordenne, þá snerust og eigi helldur hiólenn frá þeim.

17. Nær ed þeir stodu, þá stodu og einnen þau; lyptu þeir ser upp, þá upplyptu þaug ser og einnenn, þviad þar var einn lifande vindur í þeim.

18. Og dyrdenn Drottins geck í burt aptur þadan, fra hvolfenu á husenu, og sette sig yfer cherubim.

19. Þá hreifdu cherubim sínum vængium, og loptudu ser upp frá jordunne, fyrer mínum augum; og nær ed þeir gengu út, þá gengu hiólenn hiá þeim, og þeir gengu til þeirra dyranna á huse Drottins, á mót austrenu, og dyrden Guds Israels var upp yfer þeim.

20. Þetta er þad sama dyred sem eg sá under Gude Israels, hiá vatnenu Chebar, og eg formerkte, ad þad voru cherubim.

21. Hvert hafde fiogur andliti, og fiora vænge, og under þeirra vængium líka so sem manns hendur.

22. Þeirra andlits mind var

eins líka so sem þad eg sá þaug í
hiá vatnenu Chebar, og þau gengu
beinann veg fram fyrer sig.

## 11. Capitule.*

1. Og einn vindur tók mig upp,
og flutti mig til dyranna á húse
Drottins, þeirra sem horfa á mote
austrenu, og siá þú! ad undir dyr-
unum voru fimm menn og tuttugu.
Og eg sá Jasania, Assurs son, á
midal þeirra, og Platiu, Banaia
son, høfdingiana á medal folksins.

2. Og hann sagde til mín, þú
mannsins sonur! þesser menn hafa
illskusamlegar hugsaner, og skad-
samlegar rádagerder í þessum stad.

3. Þviad þeir segia: þad er enn
eigi so nær komed; látum oss ad
eins byggia upp húsenn: er hún
ketellenn, so erum ver kiøted.

4. Þar fyrer skalt þú mannsins
sonur! spá í móte þeim.

5. Og ande Drottins fell yfer
mig, og sagde til mín: seg þú, so
seger Drottinn: þer af húse Israels!
hafed so talad, og eg þecke vel þanka
ydars anda.

6. Þer hafed marga íbel sleiged
í þessum stad, og hennar stræte lig-
gia full af daudum mønnum.

7. Þar fyrer seger Drottinn
Drottin so: þeir sem þer hafed íbel
sleiged þar ínne, þeir eru kiøted,
og hún er ketellenn, enn þer hliøted
hedan.

8. Eg vil láta sverded koma yfer
ydur, sem þer erud hrædder vid,
seger Drottinn Drottinn.

9. Eg vil utskúfa ydur í burt
þadann, og gefa ydur í annarlegra
[illegible] ndur, og eg vil gera ydur yd-
[illegible] rett.

10. Þer skulud falla fyrer sverdet;
Í [illegible] rin [illegible] ndsálfum Israels vil eg
dæma y[illegible], og þer skulud fornema
þad, ad eg [illegible] Drottinn.

11. Enn stadurenn skal eigi vera
ydar ketell, eige helldur þer kiøted
þar í, helldur vil eg dæma ydur í
Israels landamerkium.

12. Og þer skulud fornema ad
eg em Drottinn. Þviad þer hafed
eigi geng[illegible]d epter mínum bodord-
um, og eigi halldet mín rettinde,
helldur hafed þer breytt epter sid-
uenju heidingianna, þeirra sem eru
í kringum ydur.

13. Og á þeim tíma eg spáde so þá
deyde Platia, Benaia sonur. Þá fell
eg framm á mína asiónu, og hrópa-
de med hárre raustu, og sagde: obo!
Drottinn Drottinn! hvert villtu nú
alldungis gera einn enda, á øllum
þeim, sem epter eru ordner í Israel?

14. Þá skede ord Drottins til
mín, og sagde,

15. Þú mannsins sonur! þíner
brædur og nánustu frændur, og
allt Israels hús, sem enn nú byr í
Jerusalem, segia vel so, hver vid
annan, hiner adrer eru langt í burt
flúner fra Drottne, enn ver høllld-
um landenu.

16. Þar fyrer þá seg þú, so seger
Drottinn Drottinn: já, eg hefe
láted reka þá langt í burt á medal
heidingianna, og dreift þeim um
londenn. Þó vil eg snarlega vera
þeirra frelsare í þeim løndum sem
þeir eru komner til.

17. Þar fyrer seg þú, so seger
Drottinn Drottinn: eg vil saman-
safna ydur frá folkenu, og eg vil
samansafna ydur úr þeim løndum
í hver þer erud burtdreifder; og eg
vil gefa ydur þad landed Israels.

18. Þangad skulu þeir koma,
og burt taka þadann allra afguda-
dyrdkaner, og svívirdingar.

19. Og eg vil gefa ydur eitt sam-
hugad hiarta; og eg vil gefa einn
nyann anda í ydur; og eg vil burt
taka þad steinhiartad ur ydru brió-

ſte, og gefa ydur eitt kiötlegt hiarta.

20. So ad þeir gange í mínum ſetningum, og hallde mín rettinde, og gere þar epter, og þeir ſkulu vera mitt folk, ſo vil eg vera þeirra Gud.

21. Enn þeir ſem ganga epter þeirra hiartans afgudadyrkun, og ſoſvirding, þeirra gerningum vil eg þeim ſiálfum í koll kaſta, ſeger Drottinn Drottinn.

22. Þá ſlocktu cherubim þeirra vængium, og hiólenn gengu hiá þeim, og dyrdenn Guds Iſraels var upp yfer þeim.

23. Og dyrdenn Drottins upplyptiſt af ſtadnum, og ſette ſig uppá fialled, þad ſem liggur ímóti auſtrenu frá ſtadnum.

24. Og einn vindur lypte mer upp, og flutte mig, í einne ſyn, í Guds anda, í Chaldea, til fanganna; og ſú ſynenn, ſem eg ſá, hvarf frá mer.

25. Og eg ſagde til fanganna øll þau ord Drottins, ſem hann hafde víſad mer.

## 12. Capitule.

1. Og ord Drottins ſkede til mín og ſagde,

2. Þú mannſins ſonur! þú byr á medal eins óhlydugs huſs, ſem vel hafa augu, ſo ad þeir kunne ad ſiá, og vilia eigi ſiá, eyru, ſo ad þeir kunne ad heyra, og vilia eigi heyra, helldur er þad eitt óhlydugt hus.

3. Þar fyrer, þu mannſins ſonur! tak þinn ferdabúning, og far af ſtad þadann á biortum deige, fyrer þeirra augum: þú ſkallt fara í burt frá þínum ſtad, til eins annars ſtadar, fyrer þeirra augum, ef ad ſo mætte verda, ad þeir villdu ſormerkia þad, ad þeir væru eitt óhlydugt folk.

4. Og þú ſkallt taka þinn farángur út med þer, ſo ſem ferdabúnad, á biortum deige, fyrer þeirra augum, og á móte qvølldenu ſkalt þu í burt fara, fyrer þeirra augum, líka ſo ſem þad madur byr ſig af ſtad, nær ed hann vill ferdaſt.

5. Og þú ſkallt brióſtaſt ígegnum veggenn, fyrer þeirra augum, og fara ſo þar út ígegnum.

6. Og þú ſkallt taka þad uppá þínar herdar, fyrer þeirra augum, og bera þad út þá myrkt er orded. Þú ſkallt byrgia þitt andlit, ſo ad þú ſiáer eigi landed, þvíat eg hefe ſett þig Iſraels huſe til eins furdanlegs teikns.

7. Og eg gerde ſem mer var boded, og bar út minn fans, ſo ſem ferdafans, á biortum deige; og um kvølldeð gróf eg med minne hende ígegnum veggenn, og þá ed myrkt var orded, tók eg hann upp á herdarnar, og bar hann út fyrer þeirra augum.

8. Og ord Drottins ſkede til mín ſnemma um morgunenn, og ſagde:

9. Þú mannſins ſonur! hefir eigi Iſraels hús, þad óhlyduga húſed, ſagt til þín, hvad gerer þú?

10. So ſeg þú til þeirra, ſo ſeger Drottinn Drottinn: þeſſe byrdarþungenn ſnerter þá høfdingiana í Jeruſalem, og allt Iſraels hús ſem þar er inne.

11. Seig þú: eg em ydart furdunar teikn, ſo ſem eg hefe gert líka ſo ſkal ydur ſke, ſo ad þer hliſted ad fara, og hertekner burtfluttir ad verda

12. Ydar høfdinge ſkalé myrkrenu á herdunum bera, og ígegnum þann veggenn mun hann fara, ſem þeir munu brióta, til ad fara þar ígegnum; hans andlit mun byrgiaſt, ſo ad hann ſkule eigi ſiá landed, med ſinum augunum.

13. Eg vil og ſo kaſta mínu nete yfer hann, ad hann ſkule veid-

ast í mínum veidarfærum, og eg vil slytia hann í Babylon, í Chaldea land, hvert ed hann skal þó ei siá, og þar skal hann deya.

14. Og eg vil sundurtvístra þeim öllum, sem ad eru kríngum hann, hans fulltingiurum, og öllum hans tilheingiurum, í allar áttir vindanna, og útrycka sverdenu á bak til vid þá.

15. So skulu þeir formerkia ad eg em Drottinn, nær ed eg burtkeyre þá medal heidingianna, og sundur dreife þeim í löndenn.

16. Enn og vil láta nockra fáeina epter verda af þeim fyrer sverdenu, húngrenu og drepsóttenne; þeir skulu kunngera þeirra svívirdingar medal heidingianna, til hverra ed þeir munu koma, og þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn.

17. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

18. Þú mannsins sonur! Þú skallt eta þitt braud med hrædslu, og drecka þitt vatn med skiálfta og sorg.

19. Og seg til folksins í landenu: so seger Drottinn Drottinn, af innbyggiurum Jerusalem, í Israels lande, þeir skulu eta sitt braud í sorg, og drecka sitt vatn í eymd, þvíad landed skal verda í eyde, af öllu því sem þar er inne, fyrer mótþróa saker allra innbyggiaranna.

20. Og þeir stadernir sem vel eru setner skulu í eyde leggiast, og landed ad øræfum verda, so skulud þer formerkia ad eg em Drottinn.

21. Og ord Drottins þad skede til mín, og sagde:

22. Þú mannsins sonur! hvad hafed þer fyrrer eitt ordtæke í Israels lande? og seged: fyrst þad dregst so lenge undann, þá verdur nú hedann frá eigi neitt af spádomenum.

23. Þar fyrer seg þú til þeirra: so seger Drottinn! eg vil burttaka þad ordtæked, so þad skal eigi meir tídkad vera í Israel. Og tala þú til þeirra: sá tíme er nálægur, og allt þad sem spád er fyrer.

24. Þvíad nú hedann frá skulud þer formerkia, ad þar skal á enge sión brestur verda, og engenn spádomur skal liúga gegn Israels húse.

25. Þvíad eg em Drottinn: hvad eg tala, þad skal ske, og eigi lángur frestur á verda, helldur vil eg þad á ydar tíd fullgera, þú hid óhlyduga hús! so sem eg hefe talad, seger Drottinn Drottinn.

26. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

27. Þú mannsins sonur! siá þu, Israels hús, þad seger: sú syn sem ad þesse hann ser, hún er enn nú langt burtu, og hann spáer af þeim tímanum sem ad enn er miøg fiarlægur.

28. Þar fyrer seg þú til þeirra: so seger Drottinn Drottinn! hvad eg tala, þar skal eigi lengur frestur á verda, helldur skal þad ske, seger Drottinn Drottinn.

## 13. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! spá þú á móte þeim prophetunum Israels, og seg til þeirra sem spá út af sínum eigenn hiørtum: heyred ord Drottins!

3. So seger Drottinn Drottinn: vei þeim heimskusamlegum prophetum sem epterfylgia sínum eigennlegum anda, og hafa þó enga syn!

4. O Israel! þíner prophetar eru lika so sem refar á eydemørku.

5. Þeir stiga eigi upp yfer munnann, og gera eigi gyrding kringum Israels hús, og þeir standa eigi í stridenu á deige Drottins.

6. Þeirra sióner eru rangar, og þeirra spádómar eru eigi utann lygar. Þeir segia: Drottinn sagde þad, þó ad Drottinn útsendi þá eigi, og ómaka sig so um þad, ad þeir fáe sínum efnum frammhalldeđ.

7. Er þad eigi so, ad ydar sióner eru rangar, og ydrer spádómar eru eigi utann lygar? og þer segeđ þó samt, Drottinn talade þad, þó eg talade þad eigi.

8. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: fyrst ad þer predikeđ þad sem eigi verdur neitt af, og spáeđ fyrer lygum, þá vil eg finna ydur, seger Drottinn Drottinn.

9. Og mín hönd skal koma yfer þá prophetana, sem predika þad sem ecke verdur af, og fyrerspá lygum. Þeir skulu eigi vera í samkundu míns folks, og eigi innskrifader vera í þá töluna hússens Israels, og eigi helldur koma í landeđ Israels, og þer skuluđ fornema ad eg em Drottinn Drottinn.

10. Þar fyrer, ad þeir afvega leida mitt folk, og segia frid, þar sem þó er engenn fridur. Fólkeđ þad uppbygger veggenn, enn þeir líma hann med halldillu kalke.

11. Seig þú til kalkaranna, sem líma med því halldilla kalke, ad þad skule af falla, þviad þar skal koma ein steypedögg, og þar skal koma stórt hagl, sem mun fella þad nidur, og einn hvirfelvindur skal sundurslita þad: siá þú! so skal veggurenn nidur falla.

12. Hvad gillder þad, ad þá mun so sagt vera til ydar, hvar er nú þad kalkid sem þer hafeđ kalkad?

13. So seger Drottinn Drottinn; eg vil láta einn hvirfelvind blása í minne grimmd, og eina steype dögg í minne reide, og stora hagl steina í minne grimd, þau skulu um kollkasta öllum hlutum.

14. Þannenn vil eg um kollkasta þeim veggnum, sem þer hafeđ límt, med því halldilla kalke, og eg vil hrinda hönum nidur til jardar, so ad siá meige hans grundvöll, ad hann ligge þar, og þer skuluđ einnenn tortínast þar inne, og reyna so, þad eg se Drottinn.

15. So vil eg fullkomna mína grimd á þeim veggnum, og á þeim sem hann hafa kalkad med halldillu kalke, og segia til ydar: her er hverke veggurenn, ne kalkarenn.

16. Þad eru þeir Israels prophetar, hverer ad spá Jerusalem, og predika af fride, þó ad þar se engenn fridur, seger Drottinn Drottinn.

17. Og þú mannsins sonur! set þitt andlit ímóte dætrunum þíns folks, sem spá af sínu hiarta, og spá þú á móte þeim.

18. Og seg þú: so seger Drottinn Drottinn! vei ydur, sem geređ fólkenu hægende under handleggena, og koddana under höfudenn, bæde úngum og gömlum, til ad veida med sálernar, nær ed þer hafeđ veidt sálernar, á medal míns folks, þá lofeđ þer þeim lífenu!

19. Og vanhelgeđ mig á mínu fólke fyrer einn hnefa bygg miöls, og eitt sticke brauds, þar med, ad þer dæmed sálernar til dauda, sem ad þó áttu ei ad deya, og dæmeđ þeim lífeđ, sem þó áttu ei ad lifa, fyrer ydrar lygar á medal míns folks, sem giarnann heyrer lygarnar.

20. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil finna yd-

ar bægende medur hverum þer veided, og offreysted sálernar, og eg vil burtslita þau fra ydrum handleggium, og gera þær sáler lausar sem þer veided og hughreysted. Og eg vil sundur rifa ydar kodda, og frelsa mitt folk af ydarre hende, so ad þer skulud eigi meir veida þá, og þer skulud fornema ad eg em Drottinn.

21. Þar fyrer, ad þer hrelldud hiörtunn rettferdugra svikſamlegana, sem eg hafde eigi hrellt, og þer styrktud hendur hinna ógudlegu, ad þeir snere ser eigi burt frá sínu illskusamlegu athæfe, so ad þeir mættu lifa.

22. Þar fyrer skulud þer eigi meir predika, og eigi helldur spá fyrer ónytsamlega lærdoma; helldur vil eg frelsa mitt folk úr ydrum höndum, og þer skulud fornema, ad eg em Drottinn.

## 14. Capitule.

1. Og þar komu nockrer af olldungunum Israels til mín, og settu sig nidur framan fyrer mer.

2. Þá skede ord Drottins til mín, og sagde:

3. Þu mannsins sonur! þetta folk helldur ser med þeirra hiörtum vid sína afgude, og hallda á þeirre hneixlan sinna illgerda, skyllde eg svara þeim nær ed þeir adspyria mig?

4. Þar fyrer tala þú vid þó, og seg þú til þeirra: so seger Drottinn Drottinn! hvada manne af Israels húse sem helldur ser í sínu hiarta vid sína afgude, og helldur fast á þeim hneixlunum sinna illgerda, og kemur til prophetanna, þá vil eg Drottinn svara þeim hinum sama, so sem hann hefir forþent medur sinne mikellre afgudadyrdkan.

5. Uppá þad, ad Israels hús skule tælast í sínu hiarta, af því ad þeir burtu vikia aller frá mer, med afgudadyrdkan.

6. Þar fyrer skallt þú segia til hússens: so seger Drottinn Drottinn! umvended og burtsnúed ydur fra ydarre afgudadyrdkan, og snúed ydrum andlitum burt fra öllum ydrum svívirdingum.

7. Hviad hver madur af Israels húse, edur útlendingur, sá sem byr í Israel, sem burtvíkur frá mer, og vidloder med sínu hiarta vid sína afgude, og helldur vid hneixlun sinnar afgudadyrdkunar, og kemur til prophetans, þad hann adspyre mig fyrer hann, þeim vil eg Drottinn siálfur svar gefa.

8. Og eg vil setia mitt auglit á móte þeim hinum sama, so ad þeir skulu verda í eydelagder, og hafder vera ad fyrerburde og málshætte, og eg vil upprydia þeim fra mínu fólke, so ad þer skulud fornema ad eg em Drottinn.

9. Og þar sem einn á tálar dreigenn prophete talar eitthvad, þá vil eg Drottinn láta þann sama þar á móti á tálar dreigenn verda, og eg vil útretta mína hönd yfer hann, og upprydia honum frá mínu fólke Israel.

10. So skulu þeir hverútveggiu bera sinn misgerning, og so sem ad hans misgerningur er sem ad spyr, eins líka so skal og misgerningurenn prophetans vera.

11. So ad þeir skulu ei lengur villa Israels hús burt fra mer, og eigi meir saurga sig med allsháttudum yfertrodslum; helldur skulu þeir vera mitt folk, og eg vil vera þeirra Gud, seger Drottinn Drottinn.

12. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

13. Þú mannsins sonur! nær ed eitt land syndgast á móte mer, og forsmæer mig þar ofan á, þá vil eg útretta mína hønd yfer þad hid sama, og burt svipta brauds-nægtunum, og eg vil senda þang-ad hallære, so ad eg skal upprydia þar inne bæde mønnum og fenade.

14. Og þó ad þeir þrír menn, Noe, Daniel, og Job, væru þar inne, þá mundu þeir ad eins sínum eigenn sálum biargad geta, fyrer siálfs síns rettlæte, seger Drottinn Drottinn.

15 Og nú, þó ad eg innleidde ill dyr í landed, sem útrymde fólk-ed, og eydde landenu, so ad eng-enn kynne ad ferdast þar inne, fyr-er dyranna saker,

16. Og þesser þrír menn væru þar og einnenn inne, so sannarlega sem eg life (seger Drottinn Drott-inn): þá mundu þeir hverke biarg-ad geta sonum edur dætrum, helld-ur alleinasta siálfum sér, og land-ed skyllde í eyde leggiast.

17. Eda ef eg lete sverd koma yfer landed, og segde: þú sverd! far þú igegnum landed, og eg upp-rydte so mønnum og fenade,

18. Og þeir þrír menn væru þar inne. So sannarlega sem eg life (seger Drottinn Drottinn) þá mundu þeir hverke fá biargad son-um ne dætrum, helldur skyllde þeim alleina biargad verda.

19. Ellegar, ef ad eg innsende drepsótt í landed, og lete ausa min-ne grimmd yfer þad, og úthella blódenu, so ad eg uprydte bæde mønnum og fenade,

20. Og Noe, Daniel, og Job, væru þar inne, so sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn, þá mundu þeir hverke geta biargad sonum ne dætrum, helldur allein-asta sínum eigenn sálum, fyrer siálfra þeirra rettlæte.

21. Þvi so seger Drottinn: ef eg innsende mínar fiorar illar ref-singar yfer Jerusalem, sem er, sverd, húngur, illskudyr, og dreps-ótt, ad eg uppryde so þar inne bæde mønnum og fenade,

22. Siá þá! þá skulu þó nockor-er þar inne epter verda, af þeim sem þadan skulu útleida syne og dætur, og koma hingad til ydar, so ad þer skulud siá hvernenn ad þeim vegnar, og hughreysta ydur yfer þvi gæfuleyse, sem eg let koma yfer Jerusalem, med øllu þvi ødru sem eg let koma yfer hana.

23. Þeir skulu vera ydar hugg-un, nær ed þer fáed ad siá hvern-enn ad þeim vegnar, og þer skulud forneima ad eg gerde þad eigi án orsaka, hvad eg hefe þar inne gert, seger Drottinn Drottinn.

## 15. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! hvad er þad tred af vínvidenum fyrer ødrum triánum, ellegar einn vín-kvisturenn fyrer ødrum triánum í skogenum?

3. Tekur madur þad nockud og gerer þar eitthvad af? eda gerest þar einn nagle af, so ad þar meige nockud uppá festa?

4. Siá þú! þvi verdur á elld kastad, so þad verde fortært, ad elldurenn foreyde so bádum þess endum, og brenne eirnenn upp midbyked þar af, hvar til skyllde þad nú duga?

5. Duger þad þá til nockurs? siá þú! þa tíd ad þad var enn nú heillt, kunne madur ecke úr þvi ad gera, hversu miklu midur þá kann þar nú hedan frá nockud af þvi ad

geraſt, fyrſt ad elldurenn hefir for-eydt Þvi, og upbrennt þad.

6. Þar fyrer ſeger Drottinn Drottinn: lika ſem eg gaf vin vid-ar tred i elldenn, ad hann foreydde Þvi, helldur enn odrum triánum i ſkogenum, eins lika ſo vil eg einn-enn gera vidur innbyggiarana i Jeruſalem.

7. Og eg vil ſetia mitt auglit á móte þeim, ſo ad þeir ſkulu eigi undann elldenum komaſt, helldur ſkal elldurenn upp eta þá, og þer ſkulud fornema, ad eg em Drott-inn, nær ed eg ſet mitt auglit á móte þeim.

8. Og legg landed i eyde, af Þvi ad þeir forſmá mig, ſeger Drottinn Drottinn.

## 16. Capitule.

1. Og ord Drottins ſkede til min, og ſagde:

2. Þú mannſins ſonur! openn-bera þú borgenne Jeruſalem henn-ar ſviivirdingar.

3. Og ſeg þú: ſo ſeger Drott-inn Drottinn til Jeruſalem: Þitt kynferde, og þin ætt, er af Cana-ans lande, þinn fader af Amori-tum, og þin móder af Hethitum.

4. Þin fæding var ſo; þinn naf-le er ei umſkorenn þá ed þú varſt fædd, ſo hafa menn og eigi laugad þig i vatne, ſo ad þá ſkyllder verda hrein, og eigi helldur núed þig i ſallte, og eigi helldur vafed þig i reifum.

5. Þviad engenn ſá aumur á þer, ad hann kennde i brioſt um þig, ſo ad hann veitte þer eitt af þeſſu, helldur vard þer útkaſtad á landed, ſo fyrerlitenn var þin ſála, þann tid þú varſt fædd.

6. Enn eg geck framm hiá þer, og ſá þig liggia i þinu blóde, og ſagde til þin, þar ed þú láſt ſo i þinu blóde: þú ſkallt lifa, já! til þin, ſagde eg, þar ed þú láſt ſo i þinu blóde: þú ſkallt lifa!

7. Og eg lefe fædt þig upp, og láted þig vaxa, ſo ſem ávöxtenn á akurlendenu, og þú varſt nu vax-enn, ſtór og fögur ordenn: þin brioſt voru vaxenn, og þú hafder allareidu feinged laugt hár, enn þú varſt enn nú ber og nakenn.

8. Og eg geck framm hiá þer, og leit til þin, og ſiá þú! ad þad var time til ad bidla þin. Þá út-breidde eg mitt kápublad yfer þig, og breidde yfer þina blygdan. Og eg lofade þer, og gaf mig i einn ſátmála vid þig, ſeger Drottinn Drottinn, ad þú ſkyllder vera min.

9. Og eg laugade þig med vat-ne, og þvode þig af þinu blóde, og ſmurde þig med balſame.

10. Og klædde þig med koſtu-legum klædnade, og dró á þig ſlu-gels ſkó; eg gaf þer prydeleg lin-klæde, og ſilkeſlædur.

11. Og prydde þig med kleno-dium, og lagde ſpeingur á þinn arm, og feſtar á þinn háls.

12. Og feck þer gullblad á þitt enne, og eyrnahringa i þin eyru, og eina fagra koronu á þitt höfud.

13. Snoggt ad ſegia; þú varſt prydd med gulli og ſilfri, og klædd med linklædum, ſilke og miſlitum klædum: þú áſt eigi utann hveite, hunáng og vidſmiör, og þú varſt frabærlega væn, og blautſt kon-ungs riked.

14. Og þin frægd hliomade á medal heidingianna, fyrer þinn-ar fegurdar ſaker, ſem algerlega var fullkomnud, vegna þeirrar pryde, ſem eg feſte á þig, ſeger Drottinn Drottinn.

15. Enn þú forletſt þig uppá þina fegurd, og af þvi þú varſt ſo vidfræg, þá drigder þú höraner,

so ad þú gerder þig almennelega, hverium manne, sem geck framm um hiá þer, og gerder hans vilia.

16. Og þú tókst af þínum klæðum, og gerder þer misslit olturu þar af, og framder þína hóran þar á, sem alldrei skede fyrr, ne ske mun.

17. Þú tókst og þín fogru ker, sem eg gaf þer, af mínu gulle og silfre, og gerder þer manns minder þar af, og drígder þína hórnn med þeim.

18. Og þú tókst þín kostulegu klæde, og prydder þær þar med, og lagder mitt oleum og reykelse fyrer þær!

19. Minn mat sem eg gaf þer til fædu, hveite, vidsmior, og hunáng, lagder þú fyrer þær til sætleiks ilms. Já, þad kom enn so langt, seger Drottinn Drottinn,

20. Ad þú tókst þína syne og dætur, sem þú fædder mer, og offrader þá þeim til fædslu. Meinar þú þá ad þín hórann se einn litels háttar hlutur?

21. Þad þú slátrar mínum bornum, og lætur brenna þau upp fyrer þeim.

22. Þú hefir enn nu alldrei, í þinne svívirding og hóran, hugleidt þinn æskutima, hversu ber og alnakenn þú varst, og láest í þínu blóde.

23. Og umframm alla þessa þína illsku (ach! vei! vei þer!) seger Drottinn Drottinn.

24. Þá bygger þú þer biargkyrkiur, og gerer þer biargolturu á ollum strætum.

25. Og fremst á ollum vega mótum bygger þú þer biargolturu, og gerer þinn fegurdar bloma til svívirdingar, þú slær þínum fótum í sundur, móte ollum þeim sem kringum þig ganga, og driger mikla hóran.

26. Fyrst dríger þú hóran med Egyptalands bornum, þínum nágronnum, sem hafdu kiot mikid, og framder miklar hóraner, mer til styggdar.

27. Enn eg útretti mina hond móte þer, og aptrade þeirre þinne breytne, og ofurgaf þig í villd þinna óvina, Philistei dætra, sem skommudust sín, vegna þíns skammarlega Athæses.

28. Þar epter drígder þú hóraner med bornum Assur, og þú kunner eigi ad sediast þar af. Já, þá ed þú hafder drígt hóraner medur þeim, og þú kunner eigi ad sediast þar af,

29. Þá framder þú enn meire hóraner í Canaans lande, allt til Chaldea, og þú kunner enn eigi ad sediast þar med.

30. Hvernenn skal eg þá umskera þitt hiarta? seger Drottinn Drottinn, med því ad þú gerer sodann einnrar hofudskiækiu gerning.

31. Þar med, ad þú bygger þínar biargkyrkiur framm á ollum vegum, og smídar þín olturu á ollum strætum.

32. Þar til med varst þú eigi sem ein onnur hóra, sem kaupast verdur med peningum, og ei helldur sem sú hórkona, sem tekur annann í staden síns manns.

33. Þviad ollum odrum hórum gefast peningar til, enn ollum þínum fylgemonnum þá gefur þú peninga til, og skeinker þeim, so ad þeir kome alla vega til þín, og dríge hóraner med þer.

34. Og þad finnst hiá þer, hvert á móte sidvenju annara kvenna, med þinne hóran, af því ad madurenn hann hleypur eigi epter þer, helldur gefur þú honum peninga til, so breyter þú þvert á móte þeim odrum.

35. Þar fyrer, þá heyr þú hóra! ord Drottins.

36. So seger Drottinn Drottinn, med þvi þú gefur so giarnann peninga þar til, og med þínu portlífe uppsletter þinne blygdan, fyrer þínum fylgemønnum, og þinne svívirdingu í móte øllum afgudum, og þad þú úthellir blódenu þinna barna, þeirra sem þú offrar þeim,

37. Þar fyrer þá siá þú! øllum þínum fylgemønnum, medur hverium þú hefir lysting framed, ásamt med øllum þeim, sem þú helldur fyrer vine, vil eg samansafna til þinna óvina, og eg vil samansafna þeim hverútveggiu á móte þer alla vegana, og uppsletta fyrer þeim þinne blygdan, so ad þeir skulu olldungis siá þína skømm.

38. Og eg vil láta domenn Hórdoms konunnar, og þeirrar ed blódenu úthellir, ganga yfer þig. Og eg vil úthella þínu blóde med grimd og vandlætingu.

39. Og eg vil gefa þig í þeirra hendur, so ad þeir skulu ofann brióta þínar biargkyrkiur, og nidur slá þín biargolltaru, og færa þig úr þínum klædum, og taka þín kostuleg ker fra þer, og láta þig so sitia alnakta og bera.

40. Og þeir skulu innleida yfer þig mikenn folksfiølda, sem þig skulu grióte grýta, og ísundur høggva þig medur sínum sverdum.

41. Og upp brenna þín hús med ellde, og gera þer þinn rett fyrer augsyn margra kvenna. So vil eg gera einn enda á þínu saurlífe, so þú skallt eigi leingur gefa þar peninga til.

42. Og eg vil kiæla mína heipt á þer, og sedia á þer mína vandlæting, ad eg meige hvílast, og þurfe eigi mer so reidur ad vera.

43. Af því, ad þú hefir eigi hugleidt þinn æskutíma, helldur reitt mig til reide, med øllu þessu, þar fyrer vil eg og einnenn leggia alla þína gerninga uppá þitt høfud, seger Drottinn Drottinn, þó ad eg hafe enn eigi gert þar med, epter þeim løstum í þínum svívirdingum.

44. Siá þú! aller þeir sem plaga ad idka málsháttu, þeir skulu hafa þennann málshátt um þig, Dotterenn er so sem modurenn!

45. Þú ert Dotter þinnar modur, þeirrar sem rak út bonda sinn og børn, og þú ert syster þinna systra, sem út ráku sína bændur og børn, ydar moder er einn af Hethitum, og ydar fader einn af Amoritum.

46. Samaria er þín hin stærre syster, med hennar dætrum, sem búa til þinnar hægre hlidar.

47. Þó ad þú hefir eigi lifad epter þeirra athæfe, og eigi helldur gert epter þeirra svívirdingum, þá brestur þar eigi þó miked á, ad þú hafir gert verra enn þær, í øllu þínu athæfe.

48. So sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn, Sodoma þín syster, og hennar dætur, hafa eigi so gert sem þú og þínar dætur.

49. Siá þú! þetta var misgerdenn systur þinnar Sodoma: drambseme, allskyns óhóf, og fridur gódur, sem hun og hennar dætur þær høfdu; enn hiálpudu eigi þeinum fátæka og naudþurftuga.

50. Helldur voru þær drambsamar, og gerdu svívirdingar fyrer mer, þar fyrer svipta eg þeim burt, þá ad eg tók til ad skygnast þar ad.

51. So hefir og einnen Samaria eigi gert helmingenn af þínum syndum, enn þú gerder þína svív-

irding miklu meire, enn þad hún hefir gert, so ad þú hefir gert þína systur fróma hjá þer, á móte øllum þeim svívirdingum, sem þú gerder.

52. So ber þú nú einnenn þína skømm, þú sem þína systur gerer fróma fyrer þínar synder, þar þú gerder stærre svívirdingar enn hún, og gerer hana so frómare enn þú ert. Af þvi skammast þín og einnenn, og ber þína skømm, þad þú hefir gert þína systur fróma!

53. Enn eg vil snúa þeirra herleidingu, sem er herleidinguune Sodomæ, og hennar dætra, og Samariæ, og hennar dætra herleidingu, og þeirra hinna fongu tu, i þessare þinne herleidingu, medur þeim.

54. So ad þú skallt bera þína skømm og forsmán, fyrer allt þad, sem þú hefir gert, og þó skulud þer samt verda huggader.

55. Og þinne systur Sodoma, og hennar dætrum, skal snúed verda, líka sem þær voru fordum daga: og Samaria, og hennar dætur skulu snúast, líka sem þær voru fyrr meir; þar til med skall þú einnenn, og þínar dætur snúast, líka sem ad þer vorud fordum daga.

56. Og þú skallt ei meir hrósa þinne systur Sodoma, so sem á tíma þinnar drambseme.

57. Þá þín illska var enn eigi openber. So sem á þeim tíma, þá ed Syrlands dætur, og Philisteadætur skømmudu þig á alla vegu, og forsmádu þig allt umkring.

58. Þá ed þer hlutud ad bera ydrar skammer og svívirdingar, seger Drottinn Drottinn.

59. Þvi so seger Drottinn: eg vil gera vid þig, líka sem þú hefir gert, ad þú forsmáer eidenn, og brytur sáttmálann.

60. Enn eg vil minnast á minn sáttmála sem eg gerde vid þig, á þinne æskutíd, og eg vil uppbyria einn eylífann sáttmála vid þig.

61. Þá mun þú minnast á þína vegu, og skammast þín, nær ed þú skallt taka ad þer þína stærre og hina minne systur, sem eg vil gefa þer til dætra, enn eigi út af þínum sáttmála.

62. Helldur vil eg uppreisa minn sáttmála vid þig, so ad þú skallt formerkia ad eg em Drottinn.

63. So þú minnest á þad, og skammest þín, og þú dyrfest ei ad upplúka þinn munn fyrer kinnroda saker, nær eg vill fyrergefa þer allt þetta, sem þú hefir gert, seger Drottinn Drottinn.

## 17. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! frammsettu Israels húse eina rádgátu, og eina epterlíking.

3. Og seg þú: so seger Drottinn Drottinn: ein stor ørn med miklum vænggum, og løngum fiødrum vel fidrudum, med ad skilianlegum litarhætte, kom uppá Libanon, og tók toppenn af cedrus vidium.

4. Og braut af þann hærsta kvistenn, og flutte hann í kramara landed, og sette hann í kaupmanns borgena.

5. Hann tók og einnenn sæded af þvi sama lande, og sáde þvi í þad sama goda landed, þar sem mikel votn eru, og sette þad lauslega nidur.

6. Og þad vox upp, og vard eitt útbreidt vínvidartre, og þó lágvaxed, þviad greinernar þar á beygdu sig nidur ad þvi, og ræturnar þar á voru under þvi, og þad var soddan eitt vínvidar tre, sem fekk kviste og greiner.

7. Og þar var ein önnur stór örn, með miklum vængium, og mörgum fiödrum, og siá þú! víniviðartreð hafde einn gyrndarhug í sínum rótum til þeirrar sömu arnarennar, og útþande sína víniviðar kvistu á móte henne, so að þeir skylldu vökvast af hennar plöntunar stað.

8. Og það var þó gródursett á einu friosömu lande, hiá mörgum vötnum, so að það hefde vel mátt fá kvistu, og bera ávöxt, og verða eitt ágætt víniviðartre.

9. So seg þu nú, so seger Drottinn Drottinn: skyllde það vel luckast? iá! menn munu uppryckia þess rótum, og afrífa þess ávöxt, og það skal uppþorna, so að öll fullvaxenn blöð þar á skulu burt visna, og það skal eigi ske fyrer einn störann armlegg, eða fyrer mikenn mannfiölda, uppá það að menn skulu burtflytia það frá sínum rótum.

10. Siá þú! vel er það gródursett, enn skyllde þvi luckast þar með? iá! so snart sem austann vindurenn kemur við það, þá mun það burt visna, í þeim sama stað, sem það vox upp.

11. Og orð Drottins skeðe til mín, og sagðe:

12. Kære! seg þú til þess óhlyðuga hússens: vited þer eigi hvað þetta er? og seg þú: siá þú! kongurenn af Babylon kom til Jerusalem, og tók hennar kong, og hennar höfðingia, og flutte þá burt til sín í Babylon.

13. Og tók einn af því konunglega sæðenu, og gerde einn sáttmála við hann, og tók einn eyð af hönum, enn þá hina volldugu í landenu tók hann burt.

14. So að kongsríked skyllde verða læckað þar með, og það tæke sig eigi upp, so það hans sáttmále skyllde halldenn verða og stöðugur standa.

15. Enn það sama (sæde) fell frá hönum, og sende sinn boðskap til Egyptalands, að þeir skylldu senda sér hesta, og margt fólk. Skyllde hönum það vel luckast? skyllde sá undan komast sem soddann gerer? og skyllde hann undann komast sem ryfur sáttmálann?

16. So sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn: í þeim stað þess kongsins, sem hann sette til konungs, hvers eið hann hefir foraktað, og hvers sáttmála hann hefir rofeð, þá skal hann deya, sem er til Babylon.

17. Og Pharao skal eigi veita hönum styrk í stríðenu, með miklu herlide, og mörgu fólke, nær eð menn hlaða upp virkes garðana, og byggia upp herkastalana, so að margur skule í helsleigenn verða.

18. Hvíað með því að hann forsmáde eiðenn, og braut hann sáttmála, sem hann gaf sína hönd uppá, og gerer allt soddann, þá skal hann eigi undan komast.

19. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: so sannarlega sem eg life, þá vil eg innfæra minn eið, þann sem hann foraktade, og minn sáttmála, þann sem hann braut, yfer hans höfuð.

20. Hvíað eg vil kasta mínu nete yfer hann, og hann skal höndlaður verða í mínum veiðeskap; eg vil flytia hann í Babylon, og þar vil eg ganga í lagadóm við hann, af því, að hann hefir so forbrotið sig við mig.

21. Og aller hans meðhallds menn, sem flya með hönum, þeir skulu falla fyrer sverðe, og þeir sem epter blifa, þeir skulu burt dreyfðer verða, í allar átter vindanna, og

þeir skulu formerkia, ad eg Drottinn hefe talad þetta.

22. So seger Drottinn Drottinn: eg vil og taka af toppinum á þvi háa cedrus trenu, og eg vil brióta einn smávaxenn kvist af þeirre hærstu greinenne þar er á.

23. Og eg vil grodursetia hann uppá einu háu samanhlødnu fialle, sem er á Israels háu fialle, ad hann skal fá greiner og bera ávøxt, og blífa eitt vegsamlegt cedrustre, so ad allrahanda fuglar kunne ad búa under hønum, og allt þad, sem floged getur, kunne ad vera under skugganum hans greina.

24. Og øll landsins tre skulu fornema, ad eg Drottinn hafe nidurþryckt þvi háa trenu, og upphafed þad hid niдurþryckta tred, og gert þad græna tre þurt, og þad þurra tre grænt. Eg Drottinn tala þetta, og gere þad einnenn.

## 18. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Hvada málshætte er þad þer hafed í Israels lande, og seged? fedurner átu þad beiska vínbered, enn barnanna tennur hafa sliófgast þar af.

3. So sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn, þá skal soddann málsháttur eigi meir ganga á medal ydar í Israel.

4. Þvi siáed! allar sáler eru mínar: fødursins sál er jafnvel mín, so sem sálenn sonarens, hver sál sem syndgast hún skal deya.

5. Nær ed nockur er nú frómur, og breyter rettvíslega og vel.

6. Hver ed eigi etur á fiøllum, hver ed eigi upplypter sínum augum til afguda hússens Israels, og saurgar eigi einnenn konu náunga síns, og liggur eigi med konunne í hennar krankleika.

7. Hver ed engum manne gerer skada; hver ed skullduga mannenum fær sinn pant aptur; hver ed eigi grípur neitt fyrer ødrum med vallde; hver ed útskipter sínu braude med hungrudum, og klæder þann sem nakenn er.

8. Hver ed eigi fremur neitt okur; hver ed eigi áseilist; hver ad búrt snyr sinne hende frá rongu; hver ed dæmer rett á mille manna.

9. Hver ad gengur epter mínum rettindum, og helldur mín bodord, ad hann gere þar alvarlega epter, sá er rettlátur madur: hann skal lifa seger Drottinn Drottinn.

10. Enn ef hann getur einn son, og verdur hann einn mordinge, sem útheller blódenu,

11. Eda gerer eitthvert af þessum verkum, og gerer eigi neitt af hinum ødrum verkunum, helldur etur á fiøllum uppe, og saurgar húsfreyu náunga síns.

12. Gerer skada hinum fátæka og volada; tekur nockud med vallde; gefir eigi aptur þad sem til panta var sett; upplypter sínum augum til afgudanna, hvar med hann gerer eina svívirding.

13. Lánar út med okre; áseylist; skyllde sá lifa? hann skal eigi lifa, helldur med þvi hann gerde alla soddann svívirding, þá skal hann dauda deya; hans blód skal yfer hønum vera.

14. Enn ef hann getur einn son, sem ser allar soddann synder, þær ed hans fader gerer, og er óttasleginn, og gerer eigi so.

15. Etur eigi á fiøllum uppe, og hefir eigi sín augu upp til afguda hússens Israels, saurgar eigi eigennkonu náunga síns.

16. Gerer engum skada, og helld-

ur eigi inne því sem í panta var sett; tekur eigi neitt med vallde; útskipter sínu braude med hungrudum, og klæder þann, sem naktenn er.

17. Sá sem burt snyr sinne hende frá raungu; tekur eigi uppá okur ne asetning, helldur varðveiter mín boðorð, og lifer epter mínum rettindum, sá skal eigi deya fyrer síns fødurs misgerda saker, helldur lifa.

18. Enn hans fader, sem ranginðenn og ofríkeð framde, og geret það, á medal síns folks, sem eigi dugde: siá þú! sá hinn same skal deya, fyrer sinna misgerda saker.

19. So segeð þer: hvar fyrer skal sonurenn ei bera síns fødurs misgerning? fyrer það, að hann gerde vel og rettvíslega, og hann hellt og gerde øll mín rettinde, þá skal hann lifa.

20. Hviad hver sál sem syndgast, hún skal deya. Sonurenn skal eigi bera fødursins misgerning, og faderenn skal ei bera sonarins misgerning, helldur skal rettlæteð hins rettferduga vera yfer hønum, og ránglæteð hins rángláta skal vera yfer hønum.

21. Enn ef sá hinn ógudlege ser burt snyr frá øllum sínum syndum, sem hann hefir gert, og varðveiter øll mín boðorð, og gerer rett og vel, þá skal hann lifa og eigi deya.

22. Allar hans yfertrodslur, sem hann hefir gert, skulu eigi áminnstar verda, helldur skal hann lifa fyrer síns rettlætis saker, sem hann gerer.

23. Meinker þú? það eg hafe þocknan á dauda hins ógudlega (seger Drottinn) og eigi miklu helldur, að hann burt snúe ser frá sínu athæfe, og life.

24. Og ef hinn rettláte burt snyr ser frá sínu rettlæte, og breyter vondslega, og lifer epter øllum svívirdingum, sem hinn ógudlege hann gerer, skyllde hann lifa? já! allt hans rettlæte, sem hann hefir gert, skal eigi í minne leggiast, helldur skal hann deya í sínum misgerningum og syndum, sem hann hefir gert.

25. Enn þó segeð þer, að Drottinn høndle eigi rettlega. So heyreð nú, þer af húse Israels! er það eige so? eg hefe rett, og þer hafeð órett?

26. Þvi nær eð hinn rettferduge snyr ser burt fra sínu rettlæte, og breyter vondslega, þá hlytur hann að deya, enn þó skal hann deya fyrer saker siálfs sinnar illsku, sem hann gerde.

27. Þar í móte, nær eð hinn ógudlege burt snyr fra sínu ránglæte, sem hann hefir gert, og breyter nú rett og vel, þá skal hann hallda sinne sálu lifande.

28. Þvi fyrst hann ser sig um, og burtu snyr ser frá allre sinne illsku, sem hann hefir gert, þá skal han lifa, enn eigi deya.

29. En þó segia þeir af Israels húse, að Drottinn hann hønðle eigi rett. Skyllde eg hafa órett? þer af Israels húse hafeð órett!

30. Þar fyrer vil eg dæma ydur, þer af húse Israels! hvern epter sinne tilverkan, seger Drottinn, Drottinn. Þar fyrer þá umvendeð ydur af øllum ydrum yfertrodslum, so að þer falleð eigi fyrer ydarra misgerda saker.

31. Burt fleygeð frá ydur øllum ydrum yfertrodslum, medur hverjum þer hafeð afvega geingeð, og gereð ydur eitt nytt hiarta, og einn nyann anda! þvi hvar fyrer vill þú so deya? þú Israels hús!

32. Þviad eg hefe ei neina villd á þess dauda, sem deyr, seger Drottinn, Drottinn: þar fyrer snúed ydur, og skulud þer lifa!

## 19. Capitule.

1. Enn þú ger einn hriggdargrát yfer Israels høfdingium.
2. Og seig þú! hvar fyrer liggur þín moder leoninnann á medal leonanna,
3. Og úppelur sína unga á medal þeirra úngu leonanna? hun uppfædde einn af þeim, og þar af vard eitt ungt leon, hann vande sig á þad ad rífa menn í sundur, og eta þá.
4. Þá ed heidingiarner heyrdu nu þetta af hønum, nádu þeir hønum í sínum grøfum, og fluttu hann í vidium til Egyptalands.
5. Þá ed hans moder sá nú, ad hennar von var úte, þar ed hun hafde leinge epter vonad, þá tók hún einn annan af sínum ungum, og gerde eitt ungt leon af hønum.
6. Þá ed hann geck nú á medal leonanna, þá vard hann eitt ungt leon, sá vande sig og á þad, ad rífa fólked í sundur, og eta þad.
7. Han lærde þad, ad þeckia þeirra eckiur, og í eyde lagde þeirra stade, so ad landed, og allt þad sem þar var ínne, hræddest hans gren iunarhliód.
8. Þá løgdu heidingiarner sig af øllum løndum allt í kringum, og køstudu einu nete yfer hann, og nádu hønum so í sínum grøfum.
9. Og hneptu hann bundenn í eina gluggagrind, og fluttu hann so til kongsins af Babylon, og þeir letu innebyrgia hann, so ad hans raust skyllde eigi meir heyrast á Israels fiøllum.
10. Þín moder var sem eitt víннidartre, eins líka sem þú, gródursett hiá vatnenu, og hennar ávørtur og greiner þær spruttu af þvi mikla vatnenu.
11. So ad hennar kvister urdu so sterker, ad þeir dugdu til stiornar-sprota yfervalldsherranna, og urdu háer á medal kvistanna. Og þá ed þeir sáu, ad þad var so hátt, og hafde so marga kvistu,
12. Vard þvi upp ryckt, og á jørdu nidur kastad í grimmd. Austanvindurenn uppþurkade ávørtenn þar á, og þær sterku greinernar þar á urdu í sundur brotnar, so ad þær visnudu og upp brenndust.
13. Enn nu er þad grodursett á eydemørkunne, í einu þurru þyrstu lande.
14. Og þar er einn elldur útgeingenn, af þeim sterku qvistunum þar uppá, sem foreydde þeim ávøxtunum, sem þar voru á, so ad þar er eingenn sterkur kvistur á þvi meir, sem hæfur er til stiornunarsprota: þad sama er einn aumlegur og hørmulegur hlutur!

## 20. Capitule.

1. Þad bar so til á þvi siøunda árenu, þann tíunda dagenn í þeim fimta mánudenum, þá komu nockrer af ølldungunum í Israel, ad spyria Drottinn, og settu sig nidur fyrer mer.
2. Þá skede ord Drottins til mín, og sagde.
3. Þú mannsins sonur! tala þú til ølldunganna Israels, og seg þu til þeirra, so seger Drottinn, Drottinn: erud þer komner til ad spyria mig? So sannarlega sem eg life, þá vil eg ei vera adspurdur af ydur, seger Drottinn, Drottinn.
4. Enn villt þú mannsins sonur! umvanda vid þá, þá má þú á þennann veg finna ad vid þá, lát þá

sá ad vita svívirdinguna sinna forfedra.

5. Og seg þú til þeirra, so seger Drottinn, Drottinn: á þeim tíma þá ed eg útvalde Israel, upphóf eg mína hønd til sædesins hussens Jacobs, og eg auglýste mig fyrer þeim í Egyptalande. Já, eg hóf mína hønd upp til þeirra, og sagde, eg em Drottinn ydar Gud.

6. Og eg upphóf mína hønd þann sama tíma, ad ed leidde þá af Egyptalande, í þad landed er eg hafde fyrerhugad þeim, þad sem rynne med miólk og hunánge, eitt ágiætlegt land fyrer øllum løndum.

7. Og eg sagde til þeirra: serhver kaste í burt svívirdingunne fra sínum augum, og saurged ydur eigi á þeim Egyptalands afgudum, þviad eg em Drottinn ydar Gud.

8. Enn þeir voru mer óhlýduger, og villdu eigi heyra mer, og eingenn af þeim burtkastade þeirra svívirdingum frá sínum augum, og yfergáfu eigi þá Egyptalands afgude. Þá þeinkte eg ad úthella minne grimmd yfer þá, og láta alla mína reide koma yfer þá, þá þegar í Egyptalande.

9.*Enn eg gerde þad ei, fyrer míns nafns saker, so ad þad skyllde eigi vanhelgad verda fyrer heidnum þiodum, á medal hverra þeir voru, og fyrer hverium eg hafde mig audgiosann gert, í þvi, ad eg villde utleida þá af Egyptalande.

10. Enn þá tíd eg hafde útleidt þá af Egyptalande, og leidt þá burt í eydemørkena.

11. Þá gaf eg þeim mín bodord, og kennde þeim mín rettinde, fyrer hver ed madurenn lifer, sá sem helldar þau.

12. Eg gaf þeim og einnenn minn sabbathsdag, til eins teikns á millum mín og þeirra, so ad þeir vissu þar af, ad eg em sá Drottinn sem þá heilaga gerer.

13. Enn Israels hús var mer óhlýdugt, einnen líka í eydemørkunne, og lifdu ei epter mínum bodordum, helldur fyrerlitu þeir mín rettinde, fyrer hver ad madurenn lifer, sá sem helldur þau, og þeir saurgudu næsta miøg mína sabbathsdaga. Þá þeinkte eg ad úthella minne grimmd yfer þá í eydemørkunne, og foreyda þeim med øllu.

14. Enn eg gierde þad ei, fyrer míns nafns saker, so ad þad skyllde eigi vanhelgad verda á medal heidingianna, frá hverum eg útleidde þá.

15. Og eg upphof mína hønd á móte þeim í eydemørkunne, ad eg villde ei innleida þá í þad landed sem eg hafde gefed þeim, þad ed flýtur med miólk og hunánge, eitt ágætt land yfer øll lønd.

16. Af því þeir fyrerlitu mín rettinde, og lifdu eigi epter mínum bodordum, og saurgudu minn sabbathsdag, þviad þeir gengu epter afgudum síns hiarta.

17. Enn mitt auga vægde þeim, ad eg tortínde þeim eigi, og þad eg fyrerfór þeim eigi med øllu á eydemørkunne.

18. Og eg sagde til barna þeirra á eydemørkenne: þer skulud eigi lifa efter bodordum fedra ydara, og eigi vardveita þeirra rettinde, og eigi saurga ydur á þeirra skúrgodum.

19. Þviad eg em Drottinn ydar Gud: þer skulud lifa epter mínum bodordum, og þer skulud halldá mín rettinde, og gera þar epter.

20. Og þer skulud helga mína sabbathsdaga, ad þeir skulu vera eitt teikn á millum mín og ydar,

so ad þer skulud vita, ad eg em Drottinn ydar Gud.

21. Enn børnenn voru mer einnenn óhlydug, og lifdu eigi epter mínum bodordum, vardveittu og ei helldur mín rettinde, ad þeir gerdu þar epter, fyrer hver ad madurenn lifer, sá sem þau vardveiter: og þeir vanhelgudu mína sabbathsdaga. Þá þeinkte eg ad úthella minne grimmd yfer þá, og láta alla mína reide geisa yfer þá á eydemørkunne.

22. Enn eg snere minne hende um, og gerde þad ei, fyrer míns nafns saker, so ad þad skyllde eigi vanhelgad verda fyrer heidingiunum, frá hverum eg hafde útleidt þá.

23. Eg upphóf einnenn mína hønd imóte þeim, á eydemørkunne, ad eg burtdreifde þeim á medal heidingianna, og ísundurtvístrade þeim í løndinn.

24. Af þvi, ad þeir helldu ei mín bodord, og fyrerlitu mín rettinde, og vanhelgudu mína sabbathsdaga, og litu epter afgudum fedra sinna.

25. Þar fyrer yfergaf eg þá í þann lærdomenn sem eigi er gódur, og í þau rettindenn í hverum þeir kunna eigi ad hafa lífed.

26. Og burtkastade þeim, med sínu offre, þar ed þeir uppbrenndu alla sína frumgetninga med ellde, hvar med eg eydde þeim, so ad þeir mættu læra ad eg em Drottinn.

27. Þar fyrer tala þú manns ins sonur! vid Israels hús, og seg þu til þeirra: so seger Drottinn Drottinn: ydrer forfedur hafa enn nú framar lytt mig og lastad.

28. Þviad þá eg hafde innleidt þá í landed, yfer hvert ad eg hafde mína hønd upphafed, ad eg villde gefa þeim þad, hvar ed þeir sáu eitt hátt fiall, edur þickvaxed tre, þar offrudu þeir sínar fórner, og báru sínar hádunglegar giafer þangad, og reykiudu þar sínum sætleiks ilm, og úthelltu þar sínu dryckiar offre.

29. Enn eg sagde til þeirra: hvad skulu þó þessar hæder, til hverra þer ganged? og so kallast þad hæder allt til þessa dags.

30. Þar fyrer seg þú til Israels hús: so seger Drottinn Drottinn: þer saurged ydur í athæfe fedra ydarra, og fremed hóraner med ydrum svívirdingum.

31. Og saurged ydur med ydrum afgudum, til hverra þer offred ydrar giafer, og uppbrenned syne ydra og dætur med ellde, allt til þessa dags: og skyllde eg láta ydur af Israels húse! spyria mig? so sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn, þá vil eg vera ó spurdur af ydur.

32. Þar til ad auk þá þeinked so: ver vilium gera so sem heidingiar, og so sem annad folk í løndunum, og tilbidia stocka og steina, þad skal bregdast ydur.

33. So sannarlega sem eg life: seger Drottinn Drottinn, eg vil drottna yfer ydur med øflugre hende, og útrettum armlegg, og med úthelltre grimmd.

34. Og eg vil útleida ydur frá þeim þiódum, og af þeim løndunum, sem þer erud burtdreifder til.

35. Og samansafna ydur þar, med øflugre hende, og útrettum armlegg, og med úthelltre grimmd. Og eg vil burtleida ydur á eydemerkurnar folksins. Og ganga þar í laga dóm vid ydur, frá auglite til auglitis.

36. Líka sem ad eg geck í dóm vid forfedur ydra á eydemørkunne hiá Egyptalande, eins líka so vil

eg ganga í dóm vid ydur, seger Drottinn Drottinn.

37. Eg vil færa ydur under hirtingar vondenn, og þvinga yd ur under bondum sáttmálans.

38. Og þeir sem afalla frá mer, og brióta imóte mer ydar á mille, þeim vil eg burtsópa, já! úr því landenu sem nú búa þeir í, og láta þá eigi koma í Israels land, so ad þer skulud læra ad, eg em Drottinn.

39. Þar fyrer, þer af Israels húse! so seger Drottinn Drottinn: fyrst ad þer viled eigi mer hlyda, so fared burt, og þióne hver ydar sínum afgudum, enn láted hedan frá mitt heilaga nafn vera ó-skammad med ydrum fornfæring-um og afgudum. Þviad so seger Drottinn Drottinn.

40. Uppá mínu heilogu fialle, á því háfa Israels fialle, þar skal allt Israels hús, og aller þeir sem í landenu eru, þióna mer, þar skulu þeir þocknast mer, og þar vil eg krefia ydars upphafningar off urs, og ydarra frumforna, med ollu því þer helged mer.

41. Þer skulud mer þecknast med þann sætleiks ilmenn, nær ed eg útleide ydur frá fólkenu, og samansafna ydur af londunum, til hverra ad þer erud burt dreifder, og eg vil helgadur verda í ydur fyrer heidingiunum.

42. Og þer skulud fá ad vita, ad eg em Drottinn, nær ad eg hefe innleidt ydur í Israels land, í þad landed, yfer hvert ad eg upphóf mína hond, ad eg villda gefa ydrum fedrum þad.

43. Þar munud þer minnast á ydra breytne, og á alla ydra gern inga, medur hverum þer erud saurgader, og ydur mun ángra allar illgerder, sem þer hafed gert.

44. Og þer skulud formerkia ad eg em Drottinn, nær ad eg gere vid ydur, fyrer míns nafns saker, enn eigi epter ydarre vondre breyt-ne, og skadsamlegum gerningum, þú Israels hús! seger Drottinn Drottinn.

## 21. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! set þú þitt andlit á móte sudrenu.

3. Og lát driúpa móte sudrenu, og spádu á móte skogenum á mork-unne, á móte sudrenu. Og seg þú til skógarins móte sudrenu: heyr þú ord Drottins! so seger Drottinn Drottinn, siá þú! eg vil upkveikia einn elld í þer, ad hann skal bæde foreyda blomgudum triám, og þurrum vidum, so madur skal eigi kunna ad útslocka hans loga, helld-ur allt þad sem stendur frá sudrenu, inn til nordursins, þad skal upp-brennt verda.

4. Og allt holld skal þad siá, ad eg Drottinn hafe kveikt hann, og engenn skal kunna ad útslocka hann.

5. Og eg sagde: æ Drottinn Drottinn! þeir segia um mig, þesse talar eigi utann myrkyrde.

6. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

7. Þú mannsins sonur! set þitt auglit á móte Jerusalem, og lát driúpa á móte helgedomenum, og spá þú á móte Israels lande.

8. Og seg þú til Israels lands, so seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil til vid þig, eg vil draga mitt sverd úr slídrum, og eg vil afmá í þer bæde rettlátann og ránglátann.

9. Enn med því, ad eg vil upp-ræta í þer bæde rettlátann og ráng-

látann, so skal mitt sverd útfara af slídrunum yfer allt holld, fra sudrenu, allt til nordursins.

10. Og allt holld skal reyna ad eg Drottinn hafe útdreiged mitt sverd, úr sínum slídrum, og þad skal eigi slídrast aptur.

11. Og þú mannsins sonur! skallt stynia, þangad til ad þínar lendar taka ad sárna, já! þú skallt stynia beisklega, so ad þeir siáe þad.

12. Og nær ed þeir segia til þín: hvarfyrer stynur þú so? þá skall þú segia: fyrer þess hróps saker sem þar kemur, fyrer hveriu ad øll hiørtu munu duglaus verda, og allar hendur fallast, allra hughreyste nidur falla, og øll kne munu renna sem vatn, siá þú! þad kemur, og þad skal ske, seger Drottinn, Drottinn.

13. Og ord Drottins skede til mín, og sagde.

14. Þú mannsins sonur! spá, þú og seg þú, so seger Drottinn: seg þú, sverded, já, sverded er hvesst og fægt.

15. Þad er hvasst gert, so ad þad skule drepa: þad er fægt, so ad leiptra skal af þvi. O! hversu glader villdum ver vera, þó ad hann gere øll tren ad hrísvøndum, handa þeim þinum vondu børnum!

16. Enn hann hefir láted fægia eitt sverd, so menn skulu taka þad, þad er brynt og fægt, so þad verde gefed hønum í hønd sem í hel skal slá.

17. Kalla hátt og æp, þú mannsins sonur! þviad þad geingur yfer mitt folk, og yfer alla stiornendur í Israel, sem samansafnader eru under sverded, ásamt med mínu folke. Þar fyrer slá þú á þínar lendar.

18. Þviad hann hefir optlega refsad þeim. Enn hvad hefir þad hiálpad? Sá vøndurenn hinum vondu barnanna vill eigi stoda, seger Drottinn Drottinn.

19. Og þú mannsins sonur! spá þú, og slá þínum høndum til samans. Þviad sverded skal koma tvøfallt, já, þrefallt, eitt dráps sverd, eitt stórt manndráps sverd, hvert ad einnenn hitta skal á þá í herbergiunum, þangad sem þeir flya.

20. Eg vil láta sverded saungla, so ad hiørtunn skulu duglaus vera, og marger skulu falla í allra þeirra borgarhlidum. Avi! hversu leiptrar þad, og vedur áframm til høggsins! og segia,

21. Veg þú bæde til hægre og vinstre hlidar, hvad sem fyrer er.

22. Þá vil eg mínum lófum til samans klappa þar yfer, og láta mína reide geisa, eg Drottinn sagde þetta.

23. Og ord Drottins skede til mín, og sagde.

24. Þú mannsins sonur! ger tvo vegu, um hveria ad koma skal kongsins sverd af Babylon, enn þeir báder skulu ganga frá einu lande.

25. Og sett eitt merke framm fyrer á veigenn gegnt stadnum, sem vísar ad hønum.

26. Og ger so veigenn, ad sverded kunne ad koma til Rabbath Ammons barna, og í Juda, til þeirrar sterku borgarennar Jerusalem.

27. Þviad kongurenn af Babylon mun setia sig þar á, er vegena skilur, þad fremst á þeim tveimur vegunum, ad láta spá þar fyrer ser, og skióta þar med ørvarsteyium, um hlutfalled, adspyr-

lande so sina afgude, og skodande lifrena.

28. Og spásøgnenn skal vísa á bægre hlidena, imote Jerusalem, og hann skal láta flytia þar ad múrbrióta, og gera grafer, og yfer: falla þá, og nidur drepa med miklu hrópe, og hann skal flytia múr: briótana imote borgarhlidunum, og byggia þar gyrdingar og her: virke.

29. Enn sá spádomurenn skal þeim þykia falsklegur vera. Hann má sveria so stort sem hann vill, enn þó mun hann þeinkia uppá misgerningenn, ad hann skule vinna hana.

30. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: fyrer þad, ad á ydur verdur minnst fyrer saker ydvarra misgerninga, og ydar óhlydne er openber, so ad menn kunna ad siá ydar synd, í øllum ydrum gerningum, iá, þar fyrer, ad ydar verdur minnst, þá skulud þer med vallde hertekner verda.

31. Og þú Israels høfdinge! þú sem ert dæmdur og úrskurdadur, hvers dagur ed koma skal, nær ed misgerningurenn er til enda komenn.

32. So seger Drottinn Drottinn: legg þú af høfudklæded, og tak ofann koronuna, þviad þar mun hvorke høfudklæde ne korona til vera, helldur sá sem upphóf sig hann skal nidur lægdur verda, og hinn sem nidur þrykte ser skal upphafenn verda.

33. Eg vil gera koronuna til einskis, til einskis, til einskis, þangad til ad hann kemur sem hana skal hafa, hønum vil eg gefa hana.

34. Og þú mannsins sonur! spá þú og seg þú, so seger Drottinn Drottinn, af þeim Ammons børnum, og af þeirra smán, og seg þú: sverded, sverded er útdreiged til ad slá ihel, pad er uppfægt, ad þad skule nidur drepa, og þad skal leiptra af þvi.

35. Þar fyrer, ad þú letst segia þer falsklegar sióner, og spá þer lygar, hvar med þú skallt yfergefenn verda á medal þeirra hinna helslegnu ógudlegu, hverra dagur ad kom, þá ed misgerningurenn var komenn ad enda.

36. Og þó ad sverded slidrest enn aptur, þá vil eg þó samt dæma þig í þeim stad sem þú ert skøpud, og í þvi lande sem þú ert fædd. Og eg vil úthella minne reide yfer þig.

37. Eg vil uppblása minn heiptareld yfer þer, og eg vil ofurselia þig þvi folke í hendur, sem kann ad brenna og fordiarfa.

38. Þú skallt vera elldsmatur, og þitt blód skal úthellast í landenu, og þín skal eigi framarmeir minnst verda, þviad eg Drottinn hefe talad þad.

## 22. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

2. Þú mannsins sonur! vill þu eigi straffa þann manndráps stadenn, og byrta hønum allar sínar svívirdingar?

3. Seg þú, so seger Drottinn Drottinn: o stadur! þú sem útheller þinna manna blóde, uppá þad þinn tíme skule koma, og þú sem gerer afgudena hiá þer, hvar med þú saurgar þig.

4. Þú gerer þig sekann í þvi blódenu, sem þú útheller, og þú saurgar þig med þeim afgudum sem þú gerer, þar med frammleider þú þína daga, og gerer þad, ad þín ár hlióta ad koma. Þar fyrer vil eg gera þig ad einne háungd,

medal heidingianna, og til einnrar skammar í øllum løndum.

5. Bæde nærre og fiærre þá skulu þeir hæda þig, og þú skallt hafa eitt skammarlegt ordrykte, og líða stóra neyd.

6. Siá þú! þeir høfdingiarner í Israel, hver þeirra er megtugur í hiá þer ad úthella blódenu.

7. Þeir fyrerlyta fødur og módur: hinum útlenda gera þeir valld og órett; þeir plága ekiur og fødurlaus børn.

8. Þú foraktar minn helgedom, og saurgar mína sabbathsdaga.

9. Svikarar eru í þer, so ad þeir kunnu ad úthella blódenu. Þeir eta upp á fiøllunum, og høndla þriotskulsamlega í þer.

10. Þeir uppslietta blygdan fedra sinna, og naudga konunum í þeirra krankdæme.

11. Og þeir fremia svívirdingar sín á mille, einn vinur med húsfreyum sins vinar; þeir skamma sínar eigenn sona kvinnur med øllum mk!þróa. Þeir naudga sínum eigenn systrum, dætrum síns fødurs.

12. Þeir þiggia mutur ad úthella blódenu. Þeir gera okur, og hafa, ávinning hver á ødrum, og fremia sína ágyrne vid sína náunga, og hver gerer ødrum ofríke, og forgleyma mer so, seger Drottinn Drottinn.

13. Siá þú! eg slæ mínum høndum til samans, yfer þeirre ágyrne sem þú fremur, og yfer þvi blódenu sem úthellt er í þer.

14. Enn þeinker þú, ad þitt hiarta mune kunna ad líða þad? eda þínar hendur fáe þolad þad, á þeim tíma, nær ed eg vil straffa þig. Eg, eg Drottinn hefe talad þetta, eg vil og einnenn fullgera þad.

15. Og eg vil burt dreifa þer á medal heidingianna, og úthrekia þig um løndenn, og eg vil gera einn enda á þinne óþeckt.

16. So ad þú skallt reiknast bølvud hiá heidingium, og førmerkia ad eg em Drottinn.

17. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

18. Þú mannsins sonur! Israels hús er mer orded ad skume, allur þeirra kopar, tin, iarn og bly, er orded í ofnenum ad silfurskume.

19. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: fyrst þer allir erud ordner skúm, siá þú! þá vil eg safna ydur øllum til samans í Jerusalem.

20. Líka sem ad lagt verdur, silfur, kopar, járn, bly og tin, til samans, í ofnenn, ad þar skule upp bláfast einn elldur under, og í sundur smellta þad.

21. Líka so vil eg og einnenn safna ydur til samans, í minne reide og grimmd, innleggia og smellta ydur, já, eg vil safna ydur, og uppblása minn reide elld á medal ydar, so ad þer skulud þar inne brádna nidur.

22. Líka sem ad silfur þad brádnar nidur í ofnenum, eins líka so skulud þer einnen nidur brádna þar inne, og reyna, ad eg Drottinn hefe úthellt minne grimmd yfer ydur.

23. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

24. Þú mannsins sonur! seg þú til þeirra, þú ert eitt land, sem eigi kann hreinsad ad verda, þú hefir og eigi feinged regn á reidennar tíma.

25. Þeir prophetarner sem eru þar inne, hafa svared til samans, ad uppeta sálernar, líka sem grenjande leon, nær ed þad tekur ser

bróð. Þeir hrifsa gods og peninga til sín, og gera þar margar ekiur inne.

26. Þeirra prestar umsnúa træfsluglega mínu lögmále, og saurga minn helgedom: þeir hallda engann greinarmun, á millum þess sem heilagt er, og þins sem óheilagt er, og þeir kenna eigi hvad hreint edur óhreint se, og þeir vardveita eigi mína sabbathsdaga, og eg verd vanhelgadur á medal þeirra.

27. Þeirra höfdingiar eru þar inne líka sem glepsande úlfar, til ad úthella blódenu, og fyrerfara sálunum, fyrer þeirra ágyrndar saker.

28. Þeirra prophetar kalka þá med laushelldu kalke, predika hiegomafretter, og spá þeim lygar, og segia, so seger Drottinn Drottinn, þó ad Drottinn hafe þad eigi talad.

29. Folked í landenu veiter yfergang, og ræner diarflega, og þeir kúga hinn fátæka og hinn volada, og gera hinum útlenda ófríke og ranginde.

30. Eg leitade á medal þeirra, hvert nockur sette sig til múrveggs, og stæde á móte mer, þar sem ur var brosted, vegna landsins, so ad eg skyllde ei fordiarfa þad, enn eg fann engann.

31. Þar fyrer úthellte eg minne reide yfer þá, og eg gerde einu enda á þeim, med mínum heiptarelde, og gaf þeim so þeirra fordenud laun yfer þeirra höfud, seger Drottinn Drottinn.

## 23. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

2. Þú mannsins sonur! Þar voru tvær konur, einnrar modur dætur.

3. Þær drígdu hóran á Egyptalande, í æsku sinne; þær letu þar taka á sínum brióstum, og þreifa um sínar meydoms vörtur.

4. Hin stærre het Ahala, og hennar syster Ahaliba. Og eg tók þær til hiúskaparbands, og þær fæddu mer syne og dætur, og Ahala kallast Samaria, enn Ahaliba Jerusalem.

5. Ahala drígde hóran, þá ed eg hafde hana ad mer teked, og hun brann fyrer sínum fylgiumönnum, syrer þeim Assyrisku, sem komu til hennar.

6. Fyrer þeim höfdingiunum og herramönnum, sem med silke voru klædder, og fyrer öllum vænum æskumönnum, sem var, fyrer riddurum og vögnum.

7. Og hún lagdest med öllum frídum mönnum í Assyria, og saurgade sig med öllum þeirra afgudum, hvar ed hún hafde gyrndarbruna til.

8. Þar til yfergaf hún eigi sína hóran vid Egyptaland, sem med henne hafde leiged í frá barnæsku hennar, og þreifad hafde um hennar meydoms brióst, og framed stóra hóran med henne.

9. Þá yfergaf eg hana í hendur sinna fylgemanna, barna þeirra Assyrisku, fyrer hverium ad hún brann af lostagyrnd.

10. Þeir uppflettu hennar blygdan, og burttóku hennar syne og dætur, og þeir íhelslóu hana med sverde, og þad barst út, ad þessar kvinnur væru straffadar.

11. Enn þá ed hennar syster Ahaliba sá þad, þá brann hún miklu verr enn hin önnur, og drígde meire hóraner enn hennar syster.

12. Og brann fyrer þeim Assurs börnum, sem er fyrer höfdingium um og herrunum (þeim sem komu til hennar vel búner), riddurum og vögnum, og fyrer öllum ungum fridum æskumönnum.

13. Þá sá eg, ad þær voru bádar saurgadar med sama hætte.

14. Enn þesse framde stærre hóran, því þar ed hún sá málada menn á veggium, í raudum litklædum, þeirra Chaldeiska líkneskiur,

15. Belltada um lendarnar, hafande mislitar húfur a sínum höfdum (og aller eins ad sjá sem volduger menn) eins og Babylona og Chaldeæ börn bera í sínu födurlande.

16. Brann hún fyrer þeim so snart sem hún sá þá, og hún sende bod til þeirra í Chaldeæ land.

17. Enn þá ed Babylons börn komu til hennar, ad sofa hiá henne, epter kærleikanum, þá saurgudu þeir hana med þeirra hóran, og hún saurgade sig med þeim, so ad hún var þreytt af þeim.

18. Og þá ed bæde hennar hóran og skammer voru so nærsta opennberar, þá vard hún mer og einnenn leid, líka sem ad syster hennar var mer leid ordenn.

19 Enn hún drýgde sína hóran þess meir, og minntest á sinn barnæsku tíma, þá ed hún framde sína hóran á Egyptalande.

20 Og brann fyrer sínum fylgemonnum, hver gyrndar brune ad var líka sem annara asna, og stódhesta.

21. Og þú stickader þinn saurlifnad, líka sem í æsku þinne, þar ed þeir í Egyptalande þreifudu á þínum brióstum, og struku um þínar geir vortur.

22. Þar fyrer Ahaliba! so seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil uppvekia þína fylgemenn á móte þer, þá sem þer eru leider ordner, og eg vil safna þeim allt í kríngum þig.

23. Sem eru Babylons börn, og alla Chaldeiska, med höfdingiunum, herrunum, og alla Assyriska, med þeim hinum ést-samlegustu æsku mönnum, alla höfdingia og stiornara, riddara og fríborna menn, og allshattad rídande lid.

24. Og þeir munu koma yfer þig, tilbúner med vögnum og riddara lide, og med miklum folksfiölda, og þeir skulu setiast um þig, med bucklurum, skiolldum, og hiálmum, allt umkríng. Þeim vil eg dóms atkvæded í hendur fá, ad þeir skulu dæma þig epter sínum lögum.

25. Eg vil láta mína vandlæting ganga yfer þig, so ad þeir skulu breyta vægdarlaust vidur þig: þeir skulu snída af þer bæde nasernar og eyrunn, og hvad sem epter verdur, þad skal falla fyrer sverde. Þeir skulu burttaka syne þína og dætur, og brenna þad upp med ellde sem epter verdur.

26. Þeir skulu draga þín klæde af þer, og burttaka þitt skart.

27. So vil eg gera einn enda á þínum saurlifnade, og á þinne hóran vid Egyptaland, so ad þú skallt eigi meir upphefia þín augu, og þeinkia eigi meir uppá Egyptaland.

28. Því so seger Drottinn Drottinn: sia þú! eg vil í hendur selia þig þeim, sem þer er ordeð illa vid, og þer eru leidar.

29. Þeir skulu höndla vid þig sem óvíner, og burttaka allt þad sem þú hefir aflad, og láta þig nakta og nakurlega, so ad þín blygd-

an, og þinn saurlifnadur, og hóran, skule augliøs vera.

30. Þetta skal þig ske fyrer þíns saurlifnadar saker, sem þú hefir frómed vid heidingiana, saurgad þig med þeirra afgudum.

31. Þú hefir gengeð á vegum systur þinnar; þar fyrer gef eg þer einnenn hennar kaleik í þína hønd.

32. So seger Drottinn Drottinn: þú skallt drecka þinnar systur kaleik, so diúpann og vidann sem hann er Þú skallt verda til so storrar hádungar og forsmánar, ad þad skal vera óbærelegt.

33. Þú skallt drecka þig fulla af þeim sterka dryckium og eymdenne, þviad sá kaleikurenn þinnar systur Samariæ er einn eymdar og hørmungar kaleikur.

34. Þann skall þú drecka hreint af, þar epter skall þú ísundurkasta brotunum, og ísundurrífa þín brióst, þviad eg hefe talad þad, seger Drottinn Drottinn.

35. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: fyrer þad, ad þú forgleymder mer, og fleygder mer á bak þer aptur, þar fyrer þá ber þú nú einnenn saurlifnad og þína hóran.

36. Og Drottinn sagde til mín: Þú mannsins sonur! vill þú ei vanda um vid Ahala og Ahaliba, og vísa þeim sínar svívirdingar?

37. Hvernenn ad þær hafa framed hórdom, og blódenu úthellt, og hórdom drígt med afgudum, þar med uppbrenndu þær, þeim til offurs, sín eigenn børn, sem þær fæddu mer.

38. Ad auk þessa þá hafa þær gert mer þad, ad þær saurgudu þann sama tíma minn helgedom, og vanhelgudu mína sabbathsdaga.

39. Þviad þá ed þær høfdu slátrad sínum børnum fyrer afgudunum, þá gengu þær þann sama dag í minn helgedom, ad saurga hann. Siá þú! sodan hafa þær gert í mínu húse.

40. Þær sendu og einnenn bod epter mønnum, sem koma skylldu af fiarlægum løndum, og siá þú! þá ed þeir komu, laugader þú þig, og fridkader þitt andlit, og pryder þig med skarte, þeim til virdingar.

41. Þa sat á einnre veglegre sæng, fyrer hverre ad stod eitt bord tilbúed, þar uppá reykfader þú reykelsenu, og offrader þar á mínu vidsmiøre.

42. Þar uppháfust mikel gledskaparhliód, og þær gáfu þeim mønnum sem þangad voru komner úr øllum áttum, af mikelsháttar fólke, og af eydemørkunne, pryde á sína armlegge, og veglegar kórónur á þeirra høfud.

43. Enn eg þeinkte so: hún er von vid hórdom fyrer langre æfe; hún kann eigi af þvi ad láta ad hóraſt.

44. Þviad þeir ganga inn til hennar, líka sem ad inn er gengeð til einnrar portlífes konu, eins líka so þá ganga þeir til Ahala og Ahaliba, þeirra saurlífis kvenna.

45. Þar fyrer skulu þeir sømu menn refsa þeim, sem þann lagarettenn skulu fullkomna, so sem þær hórkonurnar, og blóddráps konurnar skulu straffast med, þviad þær eru hórdomskonur, og þeirra hendur eru jullar af blóde.

46. So seger Drottinn Drottinn: innleid þú upp hingad yfer þær einn mikenn mannfiølda, og gef þær út til hørfángs og blutskiptis,

47. Þeim sem þær skulu med grióte lemia, og ígegnum leggia med sínum sverdum, og óhelsta

þeirra syne og dætur, og brenna upp þeirra hús med ellde.

48. Med þessu vil eg einn enda gera á saurlifnadenum í landenu, so ad allar konur skulu sig þar á reka, og breyta eigi epter soddan saurlifnade.

49. Og þeir skulu leggia uppá ydur allann ydarn saurlifnad, og þer skulud bera syndernar ydara afguda, so ad þer skulud formerkia, ad eg em Drottinn Drottinn.

## 24. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, á þvi nlunda árenu, þann tíunda dagenn í þeim tíunda mánude, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! skrifa þú upp þennann dag, já! þennann sama dag, þviad kongurenn af Babylon hefir, á þennann sama dag, útbued sig, á móte Jerusalem.

3. Og gef þvi óhlydna fólke eina epterlíking, og seg þú til þeirra: so seger Drottinn Drottinn! lát þú einn pott upp, lát þú hann upp, og hell vatne í hann.

4. Legg þú stickenn tilsamans þar í, sem þar skulu í, og þau enu bestu stickenn, lærenn og bógana, og fyll þú hann med þau hin bestu merg stickenn.

5. Tak hid besta af hiordenne, og kind elld þar under, ad sióda merg stickenn, og lát þau miog sióda, og merg stickenn þar inne verda vel sodenn.

6. Þar fyrer seger Drottinn, Drottinn: ó þann manndráps stadenn! sem er einn soddann pottur, ad þad hid vidbrennda klemmt est þar vid, og vill eigi afganga, tak hvert sticked út epter annad, og þú þarft eigi ad hlutast um, hvert ad fyrst skal út.

7. Þviad hans blód er þar í, sem hann hefir úthellt uppá einu beru biargi, og eigi á jordena, þar sem ad þad hefde mátt hyliast med mollденne.

8. Og eg hefe og einnenn þar fyrer láted hana úthella þvi sama blóde á eitt bert biarg, ad þar skylldе eigi yfer verda huled, uppá þad, ad grimmdar reidenn skyllde koma yfer hana, og ad þessa skylde hefnt verda.

9. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn: ó þú mord stadurenn! hvern ad eg vil gera ad einu stóru ellds bóle.

10. Ber ad eins hingad mikenn elldevid. Kveikþu upp elldenn, so ad kioted verde soded, og krydda þad vel, so ad mergiar stickenn brenne vid.

11. Setþú einnenn pottenn tómann á glædurnar, so ad hann verde vel heitur, og þad hans malmur brenne, ef ad hans saurende villdu burtsmelltast, og hans skófer afganga.

12. Enn hversu miog sem hann brennur, þá vill eigi þad hid vidbrennda afganga, þviad þad er ofmiog vidbrunned, þad hlytur í ellde ad smelltast.

13. Þinn óhreinleike er so ofhardnadur, ad þó ad eg villde enn gera þig hreinann, þá villþú þó eigi láta hreinsa þig, af þínum óhreinleika. Þar fyrer kannþú eigi her epter hreinn ad verda aptur, fyrr enn mín grimd hefir kælt sig á þer.

14. Eg Drottinn hefe talad þetta; þad skal koma; eg vil gera þad, og eigi undann draga; eg vil eigi vægia, eigi helldur láta þad angra mig; helldur skulu þeir dæma þig epter þvi sem þú hefir lifad, og gert til, seger Drottinn Drottinn.

15. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

16. Þu mannsins sonur! siá Þú! ad eg vil burttaka lyst Þinna augna, í einnre plágu.

17. Enn Þú skallt eigi kveina ne gráta, og eigi helldur úthella neinu táre. Enn heimuglega máttu aud varpa, enn ecke dauda kvein skallÞú hafa. Helldur skallÞú prýda Þig Þínum fegurdar búninge, og dra ga Þína skó á Þig. Eigi skallÞú byrgia Þinn munn, Þu skallt og eigi eta sorgarbrauded.

18. Og Þá ad eg talade til folksins, snemma um morgunenn, Þá dó mín kvinna um kvølldeds. Og eg gerde hinn annann morgunenn líka sem mer var bodod.

19. Og fólked sagde til mín: vilsÞú eigi kunngera osß Þad, hvad Þetta hefir ad merkia osß, sem Þú gerer?

20. Og eg sagde til Þeirra: Drottinn talade til mín, og sagde:

21. Seig Þú til Israels hússs, ad Drottinn Drottinn sege so: siá Þú! eg vil vanhelga minn helgedom, ydart hid hærsta traust, ydra augna lysting, og ydra hiartans osk, og ydrar syner og dætur, sem Þer skulud hliota ad yfergefa, skulu falla fyrer sverde.

22. Og Þer skulud gera sem eg gere. Þer skulud eigi byrgia ydarn munn, og eigi eta sorgar braud.

23. Helldur skulud Þer setia upp ydart skart, uppá ydart høfud, og taka á ydur ydar skóklæde. Þer skulud hverke harma ne gráta, helldur skulud Þer uppgefast yfer ydrum syndum, og stynia hver med ødrum.

24. Og Þannenn skal Ezechiel vera ydur ein forundran, ad Þer hlióted ad gera líka sem hann hefir gert, nær ed Þetta mun koma, hvar med ad Þer skulud formerkia ad eg em Drottinn Drottinn.

25. Og Þú mannsins sonur! Þann tíma nær ed eg mun burttaka frá Þeim Þeirra magt og traust, Þeirra augna lysting, og Þeirra hiartans osk, Þeirra syne og dætur,

26. Iá! á Þeim sama tíma skal einn koma til Þín, sem undann hefir flúed, og kunngera Þer Þad.

27. A Þeim sama tíma skal Þinn munnur upplukast med hønum, sem undann hefir flúed, so ad Þú skallt tala, og eigi meir Þeigia, hvíad Þú skallt vera Þeirra forundran, so ad Þeir skulu formerkia, ad eg em Drottinn.

## 25. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! snú Þú Þínu auglite á móte Ammons børnum, og spáÞú á móte Þeim.

3. Og segÞú til Ammons barna: heyred ord Drottins Drottins! so seger Drottinn Drottinn: fyrer Þad, ad Þer søgdud, haha! yfer mínum helgedome, ad hann være vanhelgadur, og yfer Israels lande, ad Þad være í eyde lagt, og yfer húsenu Iuda, ad Þad se herteked burtflutt,

4. Þar fyrer siá Þú! ad eg vil gefa Þig í hendur barnanna af austrenu, ad Þeir skulu byggia sína kastala og bústade í Þer, Þeir skulu eta Þinn ávøxt, og drecka Þína miolk.

5. Og eg vil gera Rabbath ad ulfballda stalle, og børn Ammons til fehyrdara, og Þeir skulu formerkia, ad eg em Drottinn.

6. Þvi so seger Drottinn Drottinn: fyrer Þad, ad Þú klappader Þínum høndum so tilsamans, og sparkader med fotunum, og hefir

so med bæþne gladt þig af øllu
þínu hiarta yfer Israels lande,

7. Þar fyrer siá þú! eg vil út-
retta mína hønd yfer þig, og gefa
þig heidingium til hlutskiptis, og
upprydkia þer frá fólkenu, og for-
eyda þer úr løndunum, og afmá
þig, og þú skallt formerkia ad eg
em Drottinn.

8. So seger Drottinn Drottinn,
af því, ad Moab og Seir segia so:
siá þú! húsed Juda er líka so sem
allar adrer heidingiar.

9. Siá þú! so vil eg opna Moab
á hlidunne í hans stødum, og í lan-
damerkium hans edla landz, sem
er, Beth Jesimoth, Baal Meen, og
Kiriathaim.

10. Þeim børnunum mót aust-
renu, med Ammons børnum, og
eg vil gefa þeim hana til arfleifd-
ar, so eigi skal framar barna Am-
mons minnst verda á medal heid-
ingianna.

11. Og eg vil láta ganga dóm
yfer Moab, og þeir skulu former
kia, ad eg em Drottinn.

12. So seger Drottinn Drott-
inn: þar fyrer, ad Edom hefir hefnt
sín á húsenu Juda, og syndgast so
med sinne hefnd,

13. Þar fyrer þá seger Drott-
inn Drottinn so: eg vil útretta mí-
na hønd yfer Edom, og eg vil burt-
svipta þadann bæde mønnum og
fenade, og hana í eydeleggia, frá
Theman, inn til Dedan, og fella
þá fyrer sverde.

14. Og eg vil hefna mín aptur
á Edom, fyrer mitt folk Israel, og
þeir skulu gera vid Edom epter
minne reide og grimd, so ad þeir
skulu formerkia mína hefnd, seger
Drottinn Drottinn.

15. So seger Drottinn Drott-
inn: fyrer þad, ad þeir Philistei
hafa hefnt sín, og hefnt þess gam-
la hatursins, epter øllum sínum
vilia, med skada (míns folks.)

16. Þar fyrer seger Drottinn
Drottinn so: siá þú! eg vil útretta
mína hønd yfer Philisteos, og af-
má þá bardaga menn, og eg vil
fyrerkoma þeim sem epter eru ord-
ner vid siáfar síduna.

17. Og eg vil frammkvæma stó-
ra hefnd á þeim, og refsa þeim med
grimd, so ad þeir skulu formerkia
ad eg em Drottinn, þá eg hefe
framed mína hefnd á þeim.

## 26. Capitule.

1. Og þad skede á því ellesta
árenu, þann fyrsta dagenn þess fyr-
sta mánadarins, ad ord Drottins
skede til mín, og sagde.

2. Þú mannsins sonur! fyrer
þad, ad Tyrus seger yfer Jerusa-
lem, haha! borgarhlidinn folksins
eru nidurbrotenn, nú er þad komed
til mín, eg fylldunst nú, fyrst hún er
í eyde løgd.

3. Þar fyrer seger Drottinn
Drottinn so, siá þú! eg vil til vid
þig Tyrus! og eg vil útleida yfer
þig marga heidingia, líka so sem
eitt siáfarhaf, þad upphefur sig
med sínum bylgium.

4. Þeir skulu fordiarfa múr-
veggena í Tyro, og nidur briota
hennar turna: já, eg vil og einnenn
því duptenu burtsópa frá henne,
og eg vil gera hana ad berum steine.

5. Og ad einum holma í hafe-
nu, þar ed menn meiga útbreida
sín fiskenet, þviad eg hefe talad
þad, seger Drottinn Drottinn, og
hún skal verda heidingiunum ad
herfánge.

6. Og hennar dætur, sem liggia
á flatlendenu, skulu drepnar verda
fyrer sverde, og þeir skulu former-
kia ad eg em Drottinn.

7. Þvi so seger Drottinn Drott inn, siá þú! eg vil láta Nabochodonosor, kongenn af Babylon, koma yfer Tyrum, fra nordrenu (hann sem er einn kongur allra konga), med hesta, vagna og riddaralid, og med einn mikenn mannfiølda.

8. Hann skal med sverde ihelslá þínar dætur, sem á slettlendenu liggiá. Enn á mote þer skal hann byggia hervirke, og gyrdingar gera, og herskiølldu útbúa á mote þer.

9. Hann skal med múrbriótum þína múrvegge nidur brióta, og þína turna medur sínum hervopnum nidur rífa.

10. Jorreykur af fiøldanum hans hesta skal hylia þig, so skulu og einnen hans múrvegger skiálfa af brakenu hestanna, hiólanna, og riddaranna, nær ed hann mun inn fara um þín borgarhlid, líka sem þad menn plaga inn ad fara í einn nidurbrotenn stad.

11. Hann mun med fótunum sinna hesta nidur troda øll þín stræte: þitt folk mun hann med med sverde nidur drepa, og þína sterka stólpa ad jørdu ofan rífa.

12. Þínu gotse skulu þeir ræna, og í burtu grípa þinn søluyrer. Þína muruegge skulu þeir ofan brióta, og þín fegurdar hús nidur rífa: þeir munu þínu múrgrióte, husavide, og sorpe, útkasta á vatned.

13. So vil eg gera einn enda þínum saunghliodum, og sláttarhliomurenn þinnar hørpu skal eigi meir heyrdur verda.

14. Og eg vil gera þig ad berum steine, og ad einum holma, þar ed menn útbreida sín fiskenet á; so ad þú skallt eigi meir uppaptur byggiast, þviad eg em Drottinn, sem þetta talar, seger Drottinn Drottinn.

15. So seger Drottinn Drottinn ímot Tyro: hvad gillder? Þær eyarnar munu skelfast vid, nær ed þú skallt so skemmelega falla, og þá ed þíner hiner sáru munu stynia, þeir sem í þer skulu drepner verda.

16. Aller høfdingiarner vid siófenn skulu affetter verda sínum stólum, og af ser leggia sína kyrtla, og afklæda sig sínum tignarbúninge.

17. Og munu ganga í sorgarklædum, og sitia á jørdunne, og þeir skulu skelfast vid, og ugga um sig, yfer þinne skyndelegre hrapan. Og þeir skulu sárgrætelegana harma þig, og segia af þer, avi! hvernenn er þú so med øllu í eyde ordenn? þú hinn nafnfræge stadurenn, sem láſt vid siófenn, og varst so megtugur á siáfarhafenu medur þínum innbyggiurum, so ad allt landed var hrædt vid þig!

18. Avi! hverstu hræddar vorn eyarnar um sig, af þinne hrapan! já, þeim eyunum í hafenu ognade yfer þinne eydeleggingu:

19. So seger Drottinn Drottinn: eg vil gera þig ad einum eydestad, so sem þá adra stade sem eingenn byr inne, og eg vil láta eitt miked vatnsflód koma yfer þig, so ad mikil vøtn skulu hylia þig.

20. Og eg vil kasta þer nidur til þeirra sem nidur fara í grøfena, sem er til hinna daudu. Eg vil hrinda þer nidur under jørdena, og gera þig so sem eina eylífa eydemørk, medur þeim sem í grøfena nidurfara, so ad eingenn skal í þer búa. Eg vil gera þig, þu hinn prydelega í lande lifande manna!

21. Já, eg vil gera þig ad skelfingu, so ad þú skallt eigi meir til vera: og nær ed þeir spyria ad

þeir, ad menn skulu alldrei framar finna þig eylíflega, seger Drottinn Drottinn.

## 27. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde.

2. Þú mannsins sønur! ger einn sørgargrát yfer Tyro.

3. Og seg þú til Tyrum, þeirrar sem liggur framm vid siáfar hafed, og kaupslagar vid margar eyar þiodanna: so seger Drottinn Drottinn: o Tyrus! þú seger, eg er þin allrafegursta.

4. Þín landemerku eru midt í hafenu, og þíner uppbyggendur hafa tilbúed þig hid allraprýdeligesta.

5. Þeir hafa allar þínar þilfialer af þínum bordvid gerdar af Sanir, og láted flytia cedrustre af Libanon, og gert þín mostþar af.

6. Og þínar árar af eiketriánum úr Basan, og þína becke af filsbeinum, og þína kostulega stola úr eyunum Chitim.

7. Þín segl voru af ísaumudu silke af Egyptalande, ad þad skyllde vera þitt strídsmerke, og þín tiølld af gulu silke, og purpura, úr þeim eyonum Elisa.

8. Þeir af Zidon og Arvad voru þíner skipveriar, og þú hafder skinsama menn til siglingar til Tyrum.

9. Þeir øllduingarner og þíner kunstríku af Gebal hlutu ad smída þín skip. Øll hafskipenn á siónum, og skipfolked fanast hiá þer, þeir høfdu sinn kaupskap í þer.

10. Þeir úr Persia, Lydia og Lybia, voru þíner strídsmenn, sem sína skiølldu og hiálma uppfestu í þer, og gerdu þig so prýdelega.

11. Þeir af Arvad voru med þínu herlide, kringum þína múrvegge, og vaktarer upp í þínum turnum; þeir festu sína skiølldu alla vega út á múrveggena, og gerdu þig so prýdelega.

12. Þá hafder þinn kaupskap í hafenu, og flutter allshháttadann varning, silfur, járn, tin og blý, til þinnar kaupstefnu.

13. Javan, Tubal og Mesech, kaupsløgudu vid þig, og fluttu þer þræla, og malm, til þinnar kaupstefnu.

14. Þeir af Thogarma fluttu þer hesta og vagna, og múlasna, til þinnar kaupstefnu.

15. Þeir af Dedan voru þíner kaupmenn, og allavega hefir þú haft þinn kaupskap í eyunum; þeir seldu þer fílabein, og hebentre.

16. Þeir af Syria sóktu hitt erfide hiá þer, sem þú verkader, og fluttu rubin, purpura, tiølld, silke og flugel, og krystalla, til þinnar kaupstefnu.

17. Juda og Israels land kaupsløgudu einnenn vid þig, og fluttu þer hveite af minnith, og balsam, og hunáng, og oleum, og mastix, til þinnar kaupstefnu.

18. Þar til sókte einnenn Damascus hiá þer þitt erfirde, og allshattadann varning, fyrer sterkt vín, og kostulega ull.

19. Dan og Javan, og Mehusal, fluttu einnenn á þitt torg járnsmídar, cassia og calmus, so ad þú kaupslagader þar med.

20. Dedan keypte vid þig med tialldavefnade, þar ed á er seted.

21. Arabia og aller høfdingiarner af Kedar høfdu kaupskap vid þig, med saude, hruta og hafra.

22. Þeir kaupmennerner af Saba, og Raema, keyptu vid þig, og fluttu þer allshháttadar kostulegar jurter, og dyrdlega gimsteina, og gull til þinnar kaupstefnu.

23. Haran og Channe, og Eden

með kaupmennunum af Seba, Assur og Chilmad, voru og þíner kaupmenn.

24. Þeir kaupsløgudu aller vid þig med kostulegum klædum, med silke og dyrendis klædum, hvern ed þeir, í kostulegum kistum, af cedrustriám smídudum, og vel umvøndudum, fluttu til þinnar kaupstefnu.

25. Enn hafskipenn voru þau ypyurstu á þinne kauprein.

26. Þanuenn erþú ordenn miøg rík og tígugleg í midiu siáfarhafenu, og þíner skipmenn hafa flutt ad þer yfer mikel vøtn.

27. Enn einn austanvindur skal í sundurbrióta þig midt í siónum, so ad þinn søluеyrer, kaupmenn, høndlarar, skipfolk, styremenn, og skipasmider, og þíner høndlunarmenn, og aller þíner strídsmenn, og allt folked í þer, skal tortínast midt í siáfarhafenu, ad þeim tíma nær ed þú gengur í grunn.

28. So ad høfnenn skal og einenn skiálfa vid, af háhliodunum þinna styre manna.

29. Og aller þeir sem róa med árum, ásamt skipverium og meisturum, skulu stíga af skipunum uppá landed.

30. Og med háhliodum æpa yfer þer, og harma þig beisklega, og ausa molldu yfer høfud ser, og vellta ser í øsku.

31. Þeir munu raka sig berskøllota yfer þer, og vefia seckium í kringum sig, og af hiarta beisklega gráta, og sorga yfer þer.

32. Þeirra børn munu og einnenn harma þig. Aha! hver hefir nockurn tíma so kirr orded á siáfarhafenu, so sem þú Tyrus?

33. Þar ed þú framdeer þinn kaupskap á siónum, mørg lønd audgader þú, já, þú audgader einnenn kongana á jørdunne, medur þínum varninge og kaupskap.

34. Enn nú erþu af siáfarhafenu í burt køstud, í þad miøg diupa vatned, so ad þín handteran, og allur þinn mannfiølde, er nidurfallenn í þer.

35. Aller þeir sem í eyunum búa skelfdust yfer þer, og þeirra kongum þá ognade þad, og báru sig hørmulega.

36 Þeir kaupmenn í løndunum blystra epter þer, ad þú ert so skyndelagana forgeingenn, og kannt eigi meir upp aptur ad komast.

## 28. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

2. Þú mansinns sonur! seg þú høfdingianum í Tyro: so seger Drottinn Drottinn: fyrer þad, ad þitt hiarta upphefur sig, og seger, eg em Gud, eg sit á velldisstóle Guds, midt á siónum þar þú ert þó madur, enn eingenn Gud, enn þó forhefur sig samt þitt hiarta, líka sem ad være þad eitt Guds hiarta.

3. Siá þú! þú þykest hyggnare enn Daniel, ad eigi se neitt hulid fyrer þer.

4. Og ad þú hafer komed slíkre magt til vegar, fyrer kunst og hyggiuvit, og fiársiodu samandreiged, af gulle og silfre, og giørsemis gripum.

5. Og med þínum mikla vísdome og høndlun hafer þu feinged so stóra magt, og þar af erþú so drambsamur ordenn, ad þú ert so megtugur.

6. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: med því ad þitt hiarta þad upphefur sig, líka sem eins Guds hiarta, þar fyrer siá þú!

7. Eg vil senda yfer þig þá enu framande, sem eru tyrannarner heidingianna, þeir skulu útdraga sín sverd yfer þinne fegurdsgrvitsku, og gera þína stóra vegsemd ad vanvirdu.

8. Þeir skulu steypa þer í grøfena nidur, ad þú skuler deya mitt í siáfarhafenu, so sem þeir íhelslegnu.

9. Hvad skal gillda? hvert ad þú munt segia til þeirra, sem þig íhelslá: eg em Gud! þar þú ert þó eigi Gud, helldur madur, og í hende þinna banamanna.

10. Þú skallt deya, líka sem hiner óumskornu, fyrer hende hinna annarlegu, þviad eg hefe þad talad, seger Drottinn Drottinn.

11. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

12. Þú mannsins sonur! ger einn harmagrát yfer kongenum af Tyro, og seg þú um hann, so seger Drottinn Drottinn: þú ert eitt hreinlegt innsigle, fullt af vísdome, og þar til fagurt.

13. Þú varst í Guds lystelegum jurtagarde, og prýddur med allsháttudum gimsteinum, sem er med Sardus, Topasens, Adamas, Turkous, Onyx, Jaspis, Saphirus, Carbunculus, Smaragdus, og gull. Á þeim deigenum ed þú varst skapadur, þá hlutu hiá þer reidubúnar ad vera þínar bumbur og hliodpípur.

14. Þú ert sem einn Cherub, sem vídt útbreider og hylur sig, og eg setta þig uppá þad heilaga fialled Guds, ad þú skyllder ganga á medal glóande steina.

15. Og þú varst flecklaus í þínum gerningum, á þeim deige þá ed þú varst skapadur, þangad til og so leinge þad þinn misgerningur vard fundenn.

16. Þviad þú ert ordenn hid innra fullur af osstoþa, af þinne stóru høndlun, og þú syndgadest, þar fyrer vil eg vanhelga þig, frá því fiallenu Guds, og eg vil útreka þig, þú hinn útbreidde Cherubi af þeim glóande steinerum.

17. Og med því, ad þitt hiarta þad upphefur sig, af því þú ert so fagur, og þú lest þín klokende tæla þig í þínu skraute, þar fyrer vil eg kasta þer nidur til jardar, og gera þig ad undrum fyrer kongenum.

18. Þviad þú hefir fordiarfad þinn helgedom, med þínum miklum misgerdum, og rangum kaupskap. Þar fyrer vil eg láta einn elld útganga af þer, sem þer skal foreyda, og eg vil gera þig ad øsku á jørdunne, so ad øll verølldenn skal siá uppá þad.

19. Aller þeir sem þeckta til þín, á medal heidingianna, skulu hrædast vegna þín, ad þú ert so skyndelega í grunn fallinn, og kannt alldrei meir upp ad komast.

20. Og ord Drottins skede til mín, og sagde,

21. Þú mannsins sonur! set þitt andlit á mot Zidon, og spá þú á móte henne, og seg þú,

22. So seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil til vid þig Zidon! og eg vil sigre hrósa á þer, so ad menn skulu formerkia ad eg em Drottenn, nær ed eg læt dómen ganga yfer hana, og auglýse á henne, ad eg se heilagur.

23. Og eg vil útsenda í hana drepsott, og blodsúthelling á hennar stræte, og þeir skulu med banvænlegum áverkum falla þar inne, fyrer sverdenu, sem alla vega skal yfer hana ganga, og þer skulud formerkia ad eg em Drottinn.

24. Og sídan skal þar alla vega íkringum Israels hús, sem þeirra

øviner eru, eingenn þyrner vera, sem þá skule stínga, edur þystell, sem skal þeim mein gera, só ad þeir formerke ad eg em Drottinn Drottinn.

25. So seger Drottinn Drottinn, nær ed eg saman safna aptur Israels húse, frá þvi folkenu, medal hverra þeir eru ísundurdreifder, þá vil eg auglýsa á þeim fyrer heid ingium, þad eg em heilagur.

26. Og þeir skulu búa í sínu lande, þvi sem eg gaf mínum þión Jacob, og þeir skulu ugglauser þar inne búa, og húsenn upp byggia, og víngardana planta. Já, þeir skulu ugglauser búa, nær ed eg læt dómenn ganga yfer alla þeirra óvine allt umkring, og þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn þeirra Gud.

## 29. Capitule.

1. A þvi tíunda áre, á þeim tolfsta dege þess tíunda mánadar, skede ord Drottins til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! set þitt auglit á móte Pharao, kongenum af Egyptalande, og spá þú á móte hønum, og ímóte øllu Egyptalande.

3. Predika, og seg þú! so seger Drottinn Drottinn: siá! eg vil til vid þig Pharao! kongur Egyptalands, þú hinn mikle breke! sem liggur í þínu vatne, og seger: vatns straumurenn er minn, og eg hefe gert mer hann.

4. Enn eg vil leggia þer einn bitel í munn, og láta fiskana í þínu vatne loda á þínu hreistre, og eg vil draga þig útaf þínum vatnsstraumum, med øllum þeim fiskum í þínum vøtnum, sem loda á þínu hreistre.

5. Eg vil útkasta þer med þínum fiskum, úr þínu vatne, burt í eydemørkina, á lande skalt þú falla, og eigi upp aptur lesenn ne samansafnadur verda, helldur skalt þú verda dýrunum í landenu, og fuglunum himensins ad bráe.

6. Og aller þeir, sem í Egyptalande búa, skulu formerkia, ad eg em Drottinn, fyrer þad, ad þeir hafa vered Israels húse einn reyrstafur.

7. Hver ed brotnade, nær ed þeir hieldu hønum í hendenne, og stack þá ígegnum sídung, enn nær ed þeir studdu sig þar vid, þá brast hann ísundur, og stack þá í lendarnar.

8. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: siá þú! eg vil láta sverded koma yfer þig, og burtsvipta bæde mønnum og fenade í þer.

9. Og Egyptaland skal verda ad einne eydemørku og øræfum, og þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn. Fyrer þad ad hann seger: vatnsstraumurenn er minn, og eg em sá, sem þad gerer.

10. Þar fyrer siá þú! eg vil til vid þig, og vid þína vatns strauma, og eg vil gera Egyptaland ad eydemørku og øbyggdum, frá turnenum til Sene, inn til landamerkianna Morlands.

11. So þar skal hvørke fenadur ne menn inne ganga, eda þar inne búa í fiørutíu ár.

12. Þviad eg vil gera Egyptaland eyde, og láta þess endemørk øbyggd vera, og stadena í eyde liggia í fiørutíu ár, so sem adra eydestade, og eg vil sundur tvístra þeim Egyptisku á medal heidíngianna, og eg vil útreka þá um løndinn.

13. Þó seger Drottinn Drottinn so: nær ed þau fiørutíu ár eru umlidenn, þá vil eg safna Egyptiskum tilsamans aptur, burt

frá þeim Þiódunum, á medal hverra þeir skulu útdreifder verda.

14. Og eg vil snúa herleidingunne Egyptskra, og flytia þá inn aptur í landed Pathros, hvert ad er þeirra fodurland, og þar skulu þeir vera eitt lited kongsríke.

15. Þviad þeir skulu vera litler hiá ødrum kongarikium, og eigi meir drottna yfer heidinglunum, og eg vil gera þá litels háttar, so ad þeir skulu eigi drottna yfer þeim heidnu.

16. So þad Israels hús skal eigi meir treysta uppá þá, og syndgast þar med, nær ed þeir hallda med þeim, og þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn Drottinn.

17. Og þad bar so til, á því tutugasta og siøunda áre, á þeim fyrsta deige þess fyrsta mánadar, þá skede ord Drottins til mín, og sagde:

18. Þú mannsins sonur! Nabochodonosor, konungurenn af Babylon, hefr slutt sitt herlid fyrer Tyrum, med mikelle armædu, so ad allra høfud eru skøllott orden, og allra skidur slitnar, og hans erfidismuner, fyrer Tyro, eru þó hverke honum, ne hans stridsfólke, launader.

19. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: siá þú! eg vil gefa Nebochodonosor, kongenum af Babylon, Egyptaland, ad hann skal burttaka allt þeirra gots, ræna þad og rupla, so ad hann gefe laun sínu herlide.

20. Enn honum vil eg gefa Egyptaland fyrer sína erfidismune, sem hann hefir haft þar fyrer, þvi ad þeir hafa þionad mer, seger Drottinn Drottinn.

21. Á þeim sama tíma vil eg láta þad horned hússens Israels vaxa, og eg vil upplúka þínum munne á medal þeirra, so ad þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn.

## 30. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! spá þú og seg þú! so seger Drottinn Drottinn: kveined (og seged.)

3. O vei þeim deigenum! þviad sá dagurenn er nálægur, já! sá dagurenn Drottins er nálægur; einn myrkur dagur: sá tímenn er í nánd, þad hiner heidnu skulu koma.

4. Og sverded skal koma yfer Egyptaland, og Morland blyfur ad hrædast, nær ed hiner íhelslegnu falla í Egyptalande, og þá ed þess folks verdur burt flutt, og þá ed þess grundvallan um koll vellist.

5. Morland, og Lybia, og Lydia, med allshattudu fólke, og Chub, og þeir sem eru af sáttmálans lande, skulu falla medur þeim fyrer sverdenu.

6. So seger Drottinn: þeir landsvarnar menn Egyptalands bliota ad falla, og sú drambseme þeirra magtar velldis skal nidursteigenn verda, frá Turnenum til Siene skulu þeir fyrer sverde falla, seger Drottinn Drottinn.

7. Og þeir skulu í eyde leggiast, líka sem þau þeirra eydelegdu landamerke, og þeirra stader skulu í eyde liggia a medal annara øbygdra stada.

8. So ad þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn, nær ed eg gere einn elld í Egyptalande, so ad aller þeir, sem því veita hialp, fordyder verde.

9. Á þeim sama tíma skulu sendebodarner útfara frá mer í skipenn, ad hræda Morland, sem nú

er so athugalaust, og þar skal vera ein hrædsla á medal þeirra, líka sem það geck Egyptalande, þá ed þess tíme kom, þriad siá þú! ad vissulega kemur það.

10. So seger Drottinn Drottinn: eg vil útdrífa mannfiøldann Egyptalands, fyrer Nabochodonosor, kongenn af Babylon.

11. Þriad hann, og hans folk med hønum, ásamt med þeim tyrønnum heidingianna, eru þar til sókter, ad þeir fordiarfe landed, og þeir munu sín sverd útdraga á móte Egyptalande, so ad landed skal alla vega liggia fullt med þá íhelslegnu.

12. Og eg vil uppþurka vatnsstraumana, og selia landed illu fólki, og eg vil fyrer þá annarlegu foreyda landed, og allt hvad þar er inne. Eg Drottinn hefe talad það.

13. So seger Drottinn Drottinn: eg vil burtsvipta skúrgodunum í Noph, og afmá þá afgudena, og þiner Egyptsku skulu engann høfdingiagia lengur hafa, og eg vil innsenda eina hrædslu í Egyptaland.

14. Eg vil Pathros í eyde leggia, og uppkveikia einn elld í Zoan, og láta rettenn ganga yfer No.

15. Og eg vil úthella minne grimd yfer Sin, sem ad er sá einn kastale Egyptalands, og eg vil upprykkia mannfiøldanum í No.

16. Eg vil uppkveikia í Egyptalande, og Sin skal hafa angist og naud, og No skal verda í eyde løgd, og Noph skal hafa daglega angist.

17. Þeir þiner ungu karlmenn í On, og Bubasto, skulu falla fyrer sverde, og konurnar skulu herteknar burt flutter verda.

18. Thachpanhes skal fá einn myrkann dag, nær ed eg ísundurslæ oked Egyptskra, so ad drambsemenn þeirra magtar skal fá einn enda þar inne; hún skal hyliast med skyunum, og hennar dætur skulu herteknar burt flytiast.

19. Og eg vil láta domenn ganga yfer Egyptaland, ad þeir skulu formerkia, ad eg em Drottinn.

20. Og það bar so til, á því elefta áre, á þeim fiorda dage í þeim fyrsta mánude, ad ord Drottins skede til mín, og sagde:

21. Þú mannsins sonur! eg vil ísunderbrióta armleggenn Pharaonis, kongsins af Egyptalande: og siá þú! ad ei skal um hann bunded verda, so ad hann meige læknast; hann skal og ei helldur med spelkum umvafenn verda, so ad hann gete stirkur ordet, og fáe sverdenu halldet.

22. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: siá þú! eg vil til vid Pharao, kongenn af Egyptalande, og eg vil ísundur brióta hans armlegg, bæde þann þinn øfluga, og þinn veika, so ad sverded skal falla úr hans hende.

23. Og eg vil burtdreifa þeim Egyptsku á medal heidingianna, og burtdrífa þá í løndin.

24. Enn eg vil stirkia armleggenn kongsins af Babylon, og fá hønum mitt sverd í sína hønd, og eg vil sundur brióta armleggena Pharaonis, ad hann skal styniа fyrer hønum, líka sem sá er til ólífis er særdur.

25. Já! eg vil stirkia armleggenn kongsins af Babylon, so ad armlegger Pharaonis nidur síge, uppá það, ad þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn, nær ed eg gef mitt sverd í kongsins hønd af Babylon, ad hann skal útrykkia því yfer Egyptaland.

26. Og eg vil burtdreifa þeim Egyptskum á medal heidingianna, og útreke þá í londenn, so ad þeir formerke ad eg em Drottinn.

## 31. Capitule.

1. Og þad skede á því ellefta áre, á þeim fyrsta dege í þeim þridiá mánade, skede ord Drottins til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! seg þú til Pharao, kongsins í Egyptalande, og til alls hans folks: hverium þeinker þú þá ad þú sert líkur í þinne vegsemd?

3. Siá þú! Assur var sem eitt cedrustre á Libanon, med fogrum greinum og laufþickum, og miog hár, so ad hans toppur stód hátt á medal þeirra stóru digru greinanna.

4. Vatned gerer þad, ad hann vard stór, og diúped, ad hann var so hátt; hans vatns ráser gengu utann umkring bolenn á honum, og hans læker til allra eikanna í landenu.

5. Þar fyrer vard hann hærre enn oll tre í landenu, og feck margar greiner og langa kvistu, þviad hann hafde nóglegt vatn ad útbreida sig med.

6. Aller himensins fuglar gerdu hreidur á hans greinum, og oll skógdyrenn hofdu unga under hans kvistum, og þar bió allt stórt folk under hans skugga.

7. Hann hafde fagrar, stórar og langar greiner, þviad hans rætur hofdu miked vatn.

8. Og þar var eigi neitt cedrustre honum líkt, í Guds alldingarde, og grenetren kunnu eigi ad jafnast vid hans greiner, og kastanientren voru ecke hiá hans kvistum. Já! hann var so fagur, ad þar var eigi neitt so fagurt tre í Guds alldingarde.

9. Eg gerde hann so prydelegann, ad hann feck so margar greiner, ad oll lysteleg tre í Guds alldingarde ofunduðu hann.

10. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: af því ad hann er ordenn so hár, ad hans toppur stód á medal stórra, hárra, þickra kvista, og hans hiarta upphóf sig, af því hann var so hár,

11. Þar fyrer gaf eg hann í hendur þeim mægtugasta á medal heidingianna, sem skyllde handtera vid hann, og burtdrífa hann, so sem hann hafde verdskulldad, med sínu óguðlegu athæfe.

12. So ad hiner annarlegu skulu upprycka honum, sem ad eru hervíkingarner heidingianna, og burtdreifa honum, og hans greiner skulu liggia á fiollunum, og í ollum dolunum, og hans greiner í sundurmoladar, í hiá ollum lækium í landenu. So ad allt fólked á jordunne skal burtvíkia, frá hans skugga, og yfergefa hann.

13. Og aller fuglar himensins sátu á hans nidur follnum stofne, og oll skógdyrenn logdu sig á hans greiner.

14. So ad engenn tre skylldu upphefia sig hedann af í hiá vatnenu, í sinne hæd, af því ad topparner standa á medal storra þickra greina, og þad eigi neitt tre, hiá vatnenu, skule upphefia sig yfer annad, þviad þeir skulu aller under jordena, og ofurseliast í daudann, sem adrer menn, þeir ed nidur fara í grofena.

15. So seger Drottinn Drottinn: á þeim tíma, nær ed hann nidur fór til helvítis, þá gerde eg einn harma grát, ad underdiúpenn hulþu hann, og hans vatns straum-

ar hlutu kirrer ad standa, og þau hin störu vatnan kunnu eigi ad renna, og eg gerde þad, ad Libanon bar harm epter hann, og øll tren á slettlendenu burt þornudu yfer hønum.

16. Eg hræddeheidingiana, þá ed þeir heyrdu hann falla, þann tíma eg steypte hønum til helvítis nidur, med þeim sem nidur fara í grøfena. Og øll þau lystelegu tren under jørdenne, þau hin edlasmustu, og hin bestu á Libanon, og øll þau sem fyrr høfdu staded hiá vatnenu, unnu hønum vel.

17. Þviad þau hlutu einnenn med hønum nidur ad fara til helvítis, til þeirra sem hellegner voru med sverdenu, med þvi ad þeir høfdu búed under skugganum hans armleggia, á medal heidenna þióda.

18. Hverfu stór meinar þú þá, ad þú (Pharao) sert, med þínu bramle og vegsemd, á medal þeirra lystelegu triánna? Þviad þú hlytur nidur ad fara under jørdena, med þeim lystelegu triánum, og liggia á medal hinna óumskornu, sem íhellegner eru med sverdenu. Þannenn skal þad ganga Pharao med øllu hans fólke, seger Drottinn Drottinn.

## 32. Capitule.

1. Og þad var so til á þvi tolfta árenu, þann fyrsta dagenn í þeim tolfta mánudenum, ad ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! ger þú einn harmagrát yfer Pharaone, kongenum af Egyptalande, og seg þú til hans: þú ert líka sem eitt Leon á medal heidingianna, og so sem einn siáfar dreke, og støcker í þínum vatns straumum, og rótar vatnenu med þínum fótum, og gerer þess strauma gruggug.

3. So seger Drottinn Drottinn: eg vil kasta mínu nete yfer þig, fyrer einn mikinn mannfiølda, sem þig skulu reka í mitt net.

4. Og eg vil drgga þig uppá landed, og kasta þer uppá vøllunа.

5. So ad aller fuglar himensins skulu sitia á þer, og øll dyrenn á jørdunne skulu mettast af þer.

6. Og eg vil kasta þínu hræe uppá fiøllenn, og uppfylla dalena med þinne hæd. Eg vil gera landed, sem þú sveimar inne, raudt af þínu blóde, allt upp til fiallanna, so ad lækerner skulu verda fuller af þer.

7. Og nær ed þad er med øllu útgert um þig, þá vil eg byrgia himenenn, og myrka hans stiørnur, og draga fyrer solena med skynum, og tungled skal eigi skína.

8. Og øll ljósenn á himnenum vil eg láta myrk verda yfer þer, og eg vil gera myrkur í þínu lande, seger Drottinn Drottinn.

9. Þar med vil eg skelfa hiørtunn marara þióda, nær eg eg læt heidingiana formerkia þína hefndar plágu, og mørg þau lønd sem þú þecker eigi.

10. Og margt folk skal felmsfullt verda yfer þer, og þeirra kongar skulu grúa fyrer þer, nær ed eg læt mitt sverd leyptra á móte þeim, og þeir skulu skelfast skyndelega, so ad þeirra hiørtu skulu nidurfalla yfer þínu falle.

11. Þvi so seger Drottinn Drottinn: konungsins sverd af Babylon skal hæfa þig.

12. Og eg vil nidurslá þitt folk, fyrer kappanna sverdum, og fyrer allsháttudum tyrønnum heidingianna: þeir skulu foreyda vegsemd-

enne Egyptalands, so ad allt þess folk skal afmád verda.

13. Og eg vil fyrerkoma øllum þess dyrum, i hiá þvi stóra vatnenu, so ad einskis manns fótur, og einskis dyrs klauf, skal gera þad gruggugt.

14. Þá vil eg og hreinsa þeirra vøtn, so ad þeirra straumar skulu fliota sem vidsmiør, seger Drottinn Drottinn.

15. Nær ad eg hefe Egyptaland i eyde lagt, og foreydt þvi øllu sem þar er i landenu, og skelfleiged alla sem þar búa inne, ad þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn.

16. Þar mun verda sú eymd, sem menn meiga vel harma, iá! margar dætur heidingianna skulu framm flytia sodbann grát, yfer Egyptalande, og menn skulu gráta yfer øllu þessu fólke, seger Drottinn Drottinn.

17. Og á þvi tolfta áre, á þeim fimmtanda dage i sama mánude, þá skede ord Drottins til min og sagde:

18. Þú mannsins sonur! grát þú fólked i Egyptalande, og steyp þvi nidur, med dætrum ... hinna øflugu heidingia, under jordena, til þeirra sem nidur fara i grøfena.

19. Hvar er nú þin vellysting? far þú nidur, og legg þig hiá þeim óumskornu!

20. Þeir skulu falla á medal hinna ikelslegnu med sverdenu. Þad sverded er nú þegar teked, og þvi er útryckt yfer allt hinnar folk.

21. Þar af skulu hiner øflugu kappar segia i helvite, medur sínum medhiálpar mønnum, þeir sem aller eru nidur farner, og liggia þar á medal þeirra óumskornu, og hinna ikelslegnu med sverdenu.

22. Þar liggur Assur grafenn med øllu sinu fólke, allt umkring, sem aller eru ikelslegner, og fallner fyrer sverde.

23. Þeirra legstader eru diúper i grøfunum, og hans folk liggur grafed, alla vega umkring, sem aller eru ikelslegner, og fallner fyrer sverdenu, fyrer hvern þad øll verølldenn var hrædd.

24. Þar liggur og einnenn Elam grafenn, med øllum sinn flock, allt umkring, þeir sem aller eru slegner og fallner fyrer sverdenu, og nidur farner, lika sem hiner óumskornu, under jordena, fyrer hverum ad øll verølldenn var hrædd, og þeir skulu bera sina skømm, medur þeim sem nidur fara i grøfena.

25. Þeir voru þar lagder med øllum sinum hóp á medal hinna ikelslegnu, og þeir liggia þar grafner allt umkring, og eru aller lika sem hiner óumskornu, og ikelslegnu med sverdenu, fyrer hverum ad einnenn øll verølldenn hlaut ad vera hrædd, og þeir skulu bera sina skømm, med þeim sem nidur fara i grøfena, og vera á medal hinna ikelslegnu.

26. Þar liggur Mesech og Thubal, med øllum þeirra hóp, grafner allt umkring, sem aller eru óumskorner, og ikelslegner med sverdenu, fyrer hverum ad øll verølldenn hlaut einnenn hrædd ad vera.

27. Og aller adrer kappar, sem fallner eru á medal hinna óumskornu, og nidur eru farner til helvitis, medur sínum hervopnum, og þeirra sverd eru løgd under þeirra høfud, og þeirra misgerningur er komenn yfer þeirra bein, þeir ed þó voru hrædeleger kappar i allre verølldenne, þeir hlióta so ad liggia

28. Eins so þá skalt þú og einnenn vissulega sundur kramenn

verda, á medal hinna óumſkornu, og liggia ſo á millr þeirra ſem íhelſlegner eru med ſverdenu.

29. Þar liggur Edom medur ſínum kongum, og øllum ſínum høfdingium, á medal hinna íhelſlegnu med ſverdenu, og á medal hinna óumſkornu, med þeim ødrum, ſem nidur fara í grøfena, hverer þó hafa vered meguger.

30. Já! aller høfdingiar af nordrenu hliota þangad, og aller Zidoniar, ſem eru ofann farner med ur hinum íhelſlegnu, og þeirra hrædelega magt er ordenn til ſkammar, og þeir ſkulu liggia á medal hinna óumſkornu, og þeirra ſem íhelſlegner eru med ſverdenu, og bera ſína ſkømm áſamt med þeim, ſem nidur í grøfena fara.

31. Þeſſa mun Pharao ſiá, og hugga ſig med øllu ſínu fólke, ſem under hønum eru íhelſlegner med ſverdenu, og med øllu ſínu herlide, ſeger Drottinn Drottinn.

32. Þviad øll verølldenn ſkal enn eitt ſinn óttaſt fyrer mer, ſo ad Pharao, og allur hans mannfiølde, ſkal liggia á medal hinna óumſkornu, og hiá þeim ſem eru íhelſlegner med ſverdenu, ſeger Drottinn Drottinn.

## 33. Capitule.

1. Og ord Drottins ſkede til mín, og ſagde:

2. Þú mannſins ſonur! predika á móte ſínu fólke, og ſeg þú til þeirra: ef ad eg læt ſverded koma yfer landed, og fólked í landenu tekur einn mann á medal ſín, og ſetur hann til ſíns vardhallds manns.

3. Og hann ſer ſverded koma yfer landed, og hann blæs í herlúdurenn, og varar ſo fólked vid.

4. Hver ſem þá heyrer hliódenn herlúdurſins, og vill eigi vakta ſig, og ſverded kemur og ſvipter hønum burt, hans blód ſkal vera yfer hans høfde.

5. Þviad hann heyrde herlúdurſins hliód, og hefir þó eigi ad helldur varad ſig vid, þar fyrer þá vere hans blód yfer hønum. Enn hver ſem lætur vara ſig vid, hann mun biarga ſínu liſe þar frá.

6. Enn ef vardhallds madurenn ſer ſverded koma, og blæs eigi í herlúdurenn, og varar ei helldur ſitt fólk vid, og ſverded kemur, og ſvipter nockorum burt, þeir hiner ſømu verda ad víſu burttekner fyrer ſinna ſynda ſaker, enn þeirra blóds vil eg kreſia af vardhallds mannſins hende.

7. Og þú mannſins ſonur! eg hefe ſett þig til eins vardhallds manns yfer Iſraels hús, nær ed þú heyrer nockud af mínum munne, ſem þú ſkallt vara þá vid minna vegna.

8. Nær ad eg ſege nú ſo til hins ógudlega: þú hinn ógudlege ſkallt viſſulega deya! og þú ſeger hønum eigi þad ſama, ſo ad ſá hinn ógudlege take ſer vara fyrer ſínne breytne, þá ſkal hinn ógudlege ad víſu deya, fyrer ſíns ógudlegs athæfis ſaker, enn eg vil kreſia hans blóds af þinne hende.

9. Enn varer þú hinn ógudlega vid ſínne breytne, ad hann ſnúe ſer þar frá, og hann vill eigi ſnúa ſer frá ſínu athæfe, þá ſkal hann deya fyrer ſinna ſynda ſaker, enn þú hefir frelſad þína ſál.

10. Þar fyrer, þú mannſins ſonur! ſeg þú til Iſraels húſs: þer ſeged ſo: vorar ſynder og misgerder þær liggia á oſs, ſo ad ver forgøngum þar under, hvernenn kunnum ver þá ad lifa?

11. Þá ſeg þú til þeirra: ſo

sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn: Þá hefe eg enga Þocknan á dauda hins ógudlega, helldur Þad, ad hinn ógudlege snúe sier frá sinne breytne, og life. So snúed ydur nú frá ydare vondre breytne. Hvar fyrer viled Þer deya, Þér af húse Israels?

12. Og Þú mannsins sonur! seg Þú til Þins folks: nær ed einn rettlátur gerer ranglega, Þá mun Þad eigi stoda honum ad hann hefir rettlátur vered. Og nær ed einn ógudlegur gerest rettvís, Þá skal Þad eigi skada hann ad hann hefir ógudlegur vered. So kann og eigi hinn rettferduge ad lifa, nær ed hann syndgast.

13. Því ef eg segde til hins rettferduga, hann skal lifa, og hann treyster uppá sína rettvíse og gerer ranglega, Þá mun øll hans rettvíse, eigi í minne løgd verda, helldur mun hann deya í sínu ranglæte sem hann gerer.

14. Og eg sege til hins ógudlega, ad hann skule deya, og hann snyr sier frá sínum syndum, og gerer Þad sem rett og gott er,

15. So ad hinn ógudlege skilar pantenum aptur, og bitalar Þad aptur sem hann hefir rænt, og gengur epter lífsins orde, so ad hann gerer eigi neitt rangliga, Þá skal hann lifa og ei deya.

16. Og allar hans synder, sem hann hefir gert, skulu eigi hugleiddar verda, Þviad hann gerer nú Þad sem rett og godt er, Þar fyrer skal hann lifa.

17. Þó seger Þitt fólk: Drottinn dæmer eigi rett, Þoat Þeir hafe órett.

18. Þviad nær ed hinn rettferduge snyr sier frá sinne rettvíse, og gerer ranglega, Þá á hann med rettu ad deya Þar fyrer.

19. Og nær ed hinn ógudlege snyr sier frá sínu ógudlegu athæfe, og gerer Þad sem rett og godt er, Þá skal hann med rettu lifa.

20. Þó seged Þer samt, ad Drottinn dæme eigi rett, Þó ad eg dæme ydur af Israels húse, hvern epter sínu athæfe.

21. Og Þad skede so, á Því tolfta voru herleidingar áre, á Þeim fimmta dege í Þeim tíunda mánude, kom einn til mín, sá sem undann hafde komest frá Jerusalem, og sagde: stadurenn er sleigenn!

22. Og hønd Drottins var yfer mer um kvøllded, fyrr enn sá kom sem undann hafde komed, og upplauk minn munn, Þar til hann kom til mín um morgunenn, og hann upplauk so mínum munne á mer, Þad eg kunne eigi meir ad Þeigia.

23. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

24. Þú mannsins sonur! Þeir sem búa í Þeim eyde stødum í Israels lande, segia so: Abraham var ad eins einn madur, og hann erfde Þetta land, og ver erum marger, Því høfum ver betra rett til landsins.

25. Þar fyrer seg Þú til Þeirra: so seger Drottinn Drottinn. Þer hafed eted bløded, og upphafed ydar augu til afgudanna, og úthellt bløodenu, og Þer meined, ad Þer viled eignast landed?

26. Já! Þer halldeð ætíd framm um manndrápenn, og fremed svívirdingar, og sá eini hann skammar eigennkonu hins annars, og Þer meined, ad Þer viled eignast landed.

27. So seg Þú til Þeirra: so seger Drottinn Drottinn: so sannarlega sem eg life, Þá skulu Þeir aller sem búa í Þeim eyde stødunum falla fyrer sverde, og hvad sem

á afrenum er, Þad vil eg gefa dyrunum til fædslu, og Þeir sem eru í koftulunum, og hellurunum, skulu deya af drepsótt.

28. Þviad eg vil med ollu foreyda landed, og gera einn enda á Þeirra drambseme, og magt, so ad Israels fioll skulu í eyde vera, ad engenn skal ganga Þar yfer um.

29. Og Þeir skulu formerkia, ad eg em Drottinn, nær ed eg hefe landed olldungis í eyde lagt, fyrer allra Þeirra svívirdinga saker, sem Þeir gera.

30. Þú mannsins sonur! Þitt folk talar á móte Þer, hiá veggiunum, og í húsdyrunum, og hver seger til annars: Kære! komed og látum oss heyra hvad Drottinn seger.

31. Og Þeir munu koma til Þín í samkundunne, og sitia framme fyrer Þer, so sem mitt folk, og munu heyra Þín ord, enn eigi neitt gera Þar epter: helldur munu Þeir blystra epter Þer, og lifa so samt áfram epter sinne agyrne.

32. Og siá Þú! Þú verdur ad vera Þeirra amorskvæde, hvert ad Þeir munu giarnan kveda, og spila, so munu Þeir heyra Þín ord, og eigi gera Þar epter.

33. Enn nær Þad kemur, hvad koma skal, siá Þú! Þá skulu Þeir formerkia ad einn prophete hefir vered á medal Þeirra.

## 34. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! spá Þú á móte hyrdurum Israelis, spá Þú og seg Þú til Þeirra: so seger Drottinn Drottinn! vei Israels hyrdurum sem ala siálfa sig! eiga eigi hyrdarner ad ala hiordena?

3. Enn Þer eted Þad hid feita, og klæded ydur med ullenne, og Þer slátred Þvi sem aled er, enn saudena viled Þer eigi ala.

4. Þer gæted eigi ad Þvi vansæra, og lækned eigi Þad siúka: Þad sem sárt er græded Þer eigi: Þad sem vegavillt er sæked Þer eigi, og Þer leited eigi epter Þvi sem glatad er, helldur drottned Þer streingelega og hardlega yfer Þeim.

5. Og míner sauder eru ísundurtvistrader, líka sem Þeir ed engann hyrder hafa, og ollum villudyrum ad átu ordner, og med ollu ísundurdreifder.

6. Og Þeir ganga villter hingad og Þangad, á fiollunum, og uppá Þeim háfu hálsunum, og Þeir eru ísundurtvistrader, um allt landed, og Þar er engenn sem spyr epter Þeim, eda hyrder um Þá.

7. Þar fyrer heyred Þer hyrdarar ord Drottins!

8. So sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn: af Þvi Þer láted saude mína verda ad herfánge, og mína hiord ollum villudyrum ad átu, med Þvi ad Þeir hafa engann hyrder, og míner hyrdarar skeyta eigi um mína hiord, helldur eru Þeir sodden hyrdarar sem ala siálfa sig, enn mína saude vilia Þeir eigi ala.

9. Þar fyrer Þer hyrdarar! heyred ord Drottins!

10. So seger Drottinn Drottinn: siá Þú! eg vil koma yfer Þá hyrdara, og krefia minnar hiardar, af Þeirra hondum, og eg vil láta Þá hafa einn enda, so ad Þeir skulu eigi lengur hyrdarar vera, og Þeir skulu eigi meir ala siálfa sig. Eg vil frelsa mína saude af Þeirra munne, so ad Þeir skulu eigi meir upp eta Þá hedan frá.

11. Þvi so seger Drottinn Drottinn: siá Þú! eg siálfur vil taka

mína hiörd ad mer, og leita ad þeim.

12. Líka sem einn hyrder 'gitar ad sínum saudum, nær ed þeir eru burt villter frá hans hiörd. So vil eg leita ad mínum saudum, og eg vil frelsa þá af öllum þeim stöd um í hvera þeir voru burtdreifter, á þeim tíma, þá ed það var so dimmt og myrkt.

13. Eg vil útleida þá frá öllu fólke, og samansafna þeim af öllum löndum, og eg vil innflytia þá í þeirra land, og eg vil þeim fæda flu gefa á Israels fiöllum.

14. Og hiá lækiunum og á öllum byggdum bólum í landenu. Eg vil leida þá til þess besta hagsendis, og þeirra sauda hús skal standa uppá fiöllunum Israels; þar skulu þeir liggia í einu lysteiegu sauda húse, og fá feitt fodur á Israels fiöllum.

15. Eg vil siálfur ala mína saude, og eg vil bæla þá, seger Drottinn Drottinn.

16. Eg vil uppleita það glatada, og leida aptur það sem villtest, og græda það hid lemstrada, og gæta ad því vanfæra, og eg vil geyma ad því sem feitt og velfært er, og eg vil hafa umhugsun fyrer þeim sem so sem rett er.

17. Enn til ydar, mín hiörd! seger Drottinn Drottinn so: siá þú! eg vil dæma á millum saudar og saudar, og á millum hrutanna og hafranna.

18. Næger það eigi, ad þer hafed so godt haglende, og yfersliot anlegt, ad þer troded það nidur med fótum? og so fagra brunna ad drecka af, so noglega, ad þer stiged þar í, og gered þá óhreina?

19. So ad míner sauder hliota ad eta það, sem þer hafed med ydrum fótum nidurtroded; og drecka það sem þer hafed med ydrum fótum gruggugt gert.

20. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so, til þeirra: siá þú! eg vil dæma á millum hins feita og hins magra saudarins.

21. Af því, ad þer stlied med sídunum, og stanged frá ydur það hid vanfæra, med ydrum hornum, þangad til ad þer burt tvistred þeim öllum frá ydur.

22. Og eg vil hiálpa minne hiörd, ad þeir skulu eigi framar meir verda ad herfange, og eg vil dæma á millum saudar og saudar.

23. Og eg vil uppvekia þeim einn einka hyrder, sem þá skal ala, sem er minn þenari David: hann skal þeim fædu gefa, og hann skal vera þeirra hyrder.

24. Og eg Drottinn vil vera þeirra Gud, enn minn þenare David skal vera einn höfdinge á medal þeirra, það seger eg Drottinn!

25. Og eg vil gera einn fridarsáttmála vid þá, og burtreka öll illsku dyrenn af landenu, so ad þeir skulu óhrædder búa á eydemörkunum, og sofa í skógunum.

26. Eg vil blessa þá, og allar mínar hæder, allt umkring, og láta rigna yfer þá á rettum tíma: það skal vera ein blessunar dögg.

27. So ad tren á landenu skulu bera sinn ávöxt, og landet skal gefa sinn gróda, og þeir skulu óhrædder búa í landenu. Og þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn, nær ed eg hefe í sundurbroted þeirra ok, og frelsad þá af þeirra hende hverium þeir hlutu ad þióna.

28. Og þeir skulu eigi meir heidingiunum ad herfange verda, og engenn dyr á jördenne skulu meir uppsvelgia þá, helldur skulu þeir örugger búa án allrar hrædslu.

29. Og eg vil uppvekia þeim

einn nafnfrægann alldinkvist, ad þeir skulu eigi meir lída húngur í landenu, og þeir skulu eigi meir bera sinn kinnroda á medal heidingianna.

30. Og þeir skulu formerkia ad Drottinn þeirra Gud em hiá þeim, og ad þeir eru mitt fólk af húse Israels, seger Drottinn Drottinn.

31. Iá! þer menn skulud vera hiørdenn míns fódurs, og eg vil vera ydar Gud, seger Drottinn Drottinn!

## 35. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þú mannsins sonur! set þitt audlit á móte fiallenu Seir, og spá þú á móte því.

3. Og seg þú til þess, so seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil til vid þig þú fialled Seir! og útrétta mína hønd á móte þer, og eg vil í eyde leggia þig med øllu.

4. Eg vil gera þína stade ad ørbylum, so ad þú skallt verda ad óbyggdum, og formerkia ad eg em Drottinn.

5. Af því, ad þer bered eylífann fiandskap til Israels barna, og ráku þá under sverded, þá ed þeim veitte illa, og þeirra synder høfdu enda,

6. Þar fyrer, so sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn: vil eg einnenn gera þig blodugann, og þú skallt ei komast undann blódenu, af því þú hefir lysting til blodsins, þá skallt þú eigi undann komast blodenu.

7. Og eg vil gera fialled Seir ad eydemørku og øræfum, so ad engenn skal ferdast eda ganga þar uppá.

8. Og eg vil uppfylla øll hans fiøll, og hálsa, dale og læke, med þeim daudu, sem þar skulu liggia íhelslegner med sverdenu.

9. Jál eg vil gera þig til einnrar eylífrar eydemerkur, ad engenn skal búa í þínum stødum. Og þer skulud formerkia ad eg em Drottinn.

10. Og af því þú seger: þetta hvørtveggia fólk, med bádumløndunum, skal vera mitt, og ver viljum eignast þau, þó ad Drottinn hann búe þar,

11. Þar fyrer, so sannarlega sem eg life, seger Drottinn Drottinn: eg vil breyta vid þig, epter þinne reide og hatre, so sem ad þú hefir breytt vid þá af reittu hatre, og eg vil vera þecktur hiá þeim, þá ad eg hefe refsad þer.

12. Og þú skallt formerkia ad eg Drottinn hefe heyrt alla þína hádung, sem þú hefir talad á móte Israels fiøllum, og sagt: þau eru í eyde løgd, og oss gefenn ad fordiarfa þau.

13. Og þer hafed hælst um vid mig, og talad hardlega ígegn mer, þad hefe eg heyrt.

14. So seger nú Drottinn Drottinn: eg vil gera þig ad einnre eydemørku, so ad allt landed skal gledia sig.

15. Og so sem ad þú hefir gladt þig ígegn arfleifdenne hússens Israels, ad taka hana ad þer, med því ad hún var í eyde løgd, líka so vil eg gera vid þig, so ad fialled Seir skal verda í eyde, med gervallre Edom, og þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn.

## 36. Capitule.

1. Og þú mannsins sonur! spá þú Israels fiøllum, og seg þú: þer Israels fiøll, heyred ord Drottins!

2. So seger Drottinn Drottinn: af því ad óvinurenn hrósar ser yfer

ydur, haha! Þær æfenlegu hædern=ar eru nú ordnar vor arfleifd.

3. Þar fyrer spádu og segdu, so seger Drottinn Drottinn: med Þvi Þeir í eyddelagdu og afmódu ydur, alla vega, og Þer erud Þeim epter=ordnu heidingium ad hlutskipte ordner, og erud komner í folksins munna, og erud ordner ad vondre úthrópan,

4. Þar fyrer heyred Þer Israels fiøll ord Drottins Drottins! so seg=er Drottinn Drottinn: bæde til fiallanna og til hálsanna, til læki=anna og dalanna, til øræfa eyde=markanna, og óbyggdra stadanna, sem eru Þeim epter ordnu heiding=um ad gripdeilldum og hádungu ordner, allt umkring.

5. Já! so seger Drottinn Drott=inn: eg hefe talad í minne brenn=ande vandlætingu, móte Þeim ept=er ordnu heidingium, og móte ger=vallre Edom, sem mitt land hefir ad ser teked, med fagnade af øllu hiarta, og med hádugleguм at=hlátre, til ad fordiarfa og rupla Þad.

6. Þar fyrer spá Þú um Israels land, og seg Þú til fiallanna og hálsanna, til lækianna og dalan=na, so seger Drottinn Drottinn: siá Þú! eg hefe talad í minne vand=lætingu og grimd, af Þvi Þer hliot=ed ad bera soddan forsmán af heid=ingunum.

7. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: eg upphef mína hønd, ad ydrer nágrannar, heidingiarn er allt umkring, skulu Þar ígegn siálfer bera sínar skammer.

8. Enn Þer Israels fiøll skulud blomgast aptur, og bera ydarn á=vøxt mínu fólke Israel, og Þad skal snarlega ske.

9. Þvi siáed, eg vil snúa mer til ydar aptur, og gæta ad ydur, so ad Þer skulud uppbyggiast, og nid=ur sáter verda.

10. Og eg vil fiølga fólkenu hiá ydur, gervøllu Israels húse, øllu tilsamans. Og staderner skulu set=ner verda aptur, og eydemerkurn=ar uppbyggdar verda.

11. Já! eg vil fiølga hiá ydur fólke og fenade, so ad Þer skulud fiølga og vaxa. Og eg vil innsetia ydur aptur, Þar Þer bigggud fyrr meir. Og eg vil gera ydur meira godt, helldur enn nockurn tíma ád=ur fyrre, og Þer skulud formerkia ad eg em Drottinn.

12. Eg vil innflytia menn til ydar, sem skulu vera mitt folk Is=rael, Þeir skulu Þig eignast, og Þú skallt Þeirra arfleifd vera, og Þú skallt eigi meir vera erfingialaus.

13. So seger Drottinn Drott=inn: med Þvi ad menn segia Þad um ydur: Þú hefir uppeted fólked, og Þú hefir gert Þitt folk erfingia=laust,

14. Þar fyrer skall Þú eigi (nú) meir upp eta fólked, ei helldur gera Þitt folk arflaust, seger Drottinn Drottinn.

15. Og eg vil ei láta Þig lengur heyra brixlenn heidingianna; og Þú skallt eigi lengur bera hádungar heidingianna, og Þú skallt eigi ge=ra Þitt fólk erfingialaust lengur, seger Drottinn Drottinn.

16. Og ord Drottins skede framm=veigis til mín.

17. Þú mannsins sonur! Þá ed Israels hús bió í sínu lande, og saurgade Þad medur sinne breytne og gerningum, so ad Þeirra breytne var fyrer mer, so sem óhreinleike kvinnunnar í hennar krankdæme,

18. Þá úthellte eg minne grimd yfer Þá, fyrer Þess blodsins saker sem Þeir úthelltu í landenu, og

saurgudu þad sama med þeirra afgudum.

19. Og eg útdreifde þeim á medal heidingianna, og eg burtrak þá í løndinn, og dæmde þá epter þeirra breytne og gerningum.

20. Og þeir helldu sig líka so sem heidingiarner, til hverra þeir komu, og vanhelgudu mitt hid heilaga nafn, so ad þeir søgdu so af þeim, er þetta fólk Drottens? er þad útfared af hans lande?

21. Enn eg vægde fyrer míns heilaga nafns saker, hvert ed Israels hús þad vanhelgade á medal heidingianna, til hverra þeir komu.

22. Þar fyrer skall þú segia til Israels húss, so seger Drottinn Drottinn: eg geri þad ei fyrer ydra skulld, þer af húse Israels! helldur fyrer míns heilaga nafns saker, hvert þer hafed vanhelgad á medal heidingianna, til hverra þer erud komner.

23. Þviad eg vil helga mitt hid mikla nafn, sem af ydur er vanhelgad fyrer heidingium, þad sem þer hafed vanhelgad á medal þeirra. Og þeir hiner heidnu skulu formerkia ad eg em Drottinn (seger Drottinn Drottinn) nær ad eg auglýse mig á ydur fyrer þeim, þad eg se heilagur.

24. Þviad eg vil sækia ydur til heidinna þióda, og samansafna ydur af øllum løndum, og innflytia ydur aptur í ydart land.

25. Og eg vil støkva hreinu vatne á ydur, so ad þer skulud verda hreiner af øllum ydrum saurendum og eg vil hreinsa ydur frá øllum ydrum afgudum.

26. Og gefa ydur eitt nytt hiarta, og einn nyann anda í ydur, og eg vil burttaka steinhiartad af ydru holldе, og gefa ydur eitt kiøtlegt hiarta.

27. Eg vil gefa minn anda í ydur, og eg vil gera eitt soddann fólk af ydur sem geingur í mínum bodordum, og helldur mín rettinde, og gerer þar epter.

28. Og þer skulud búa í landenu, sem eg gaf ydrum forfedrum, og þer skulud vera mitt fólk, og eg vil vera ydar Gud.

29. Eg vil frelsa ydur af øllum ydrum óhreinleika, og eg vil kalla korned, og eg vil margfallda þad, og eigi neitt hallære vil eg láta koma til ydar,

30. Eg vil margfallda ávøxtenn á triánum, og ávøxtenn á akurløndunum, so ad heidingiarner skulu eigi meir hæda ydur med þeirre hallæris tíd.

31. Þá munud þer hugleida ydra vonda breytne, og ydra gerninga sem eigi voru góder, og þer munud þá idrast ydara synda, og afguda dyrdkunar.

32. Þessu vil eg til vegar koma, eigi fyrer ydra skulld, seger Drottinn Drottinn: so ad þer skulud vita þad, helldur so ad þer skulud einnenn skammast ydar, og bera kinnroda, þer af Israels húse, yfer ydarri vondre breytne.

33. So seger Drottinn Drottinn: á þeim tíma, nær ed eg mun hreinsa ydur af øllum ydrum syndum, þá vil eg byggia þessa stade aptur, og þeir eyddu staderner skulu aptur uppbyggder verda.

34. Þad foreydda landed skal eriast aptur, fyrer þad, ad þad var fordiarfad, so ad aller þeir, sem þar ganga um skulu siá þad.

35. Og segia: þetta land var í eyde lagt, og nú er þad sem eitt lystelegur alldingardur, og þesser stader voru nidurbrótner, og eyde

lagder, og ofann rifner, enn nú standa þeir rammlega bygder.

36. Og þeir heidingiarner, sem epter eru ordner íkringum ydur, skulu formerkia, ad eg em Drottinn, sá sem uppbygger þad sem nidur er bróted, og gródursetur þad sem í eyde er lagt. Eg Drottinn hefe talad þetta, og gere einnenn þad hid sama.

37. So seger Drottinn Drottinn: eg vil láta ad nyu Israels hús spyria mig, so ad eg meige audsyna mig þeim, og eg vil margfallda þá, so sem mannanna hiørd.

38. So sem eina heilaga hiørd, so sem eina hiørd til Jerusalem á hennar hátídum, so skulu þeir forøyddu stader ner fulter verda af mannanna hiørd, og þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn.

## 37. Capitule.

1. Og hønd Drottins kom yfer mig, og flútte mig burt í anda Drottins, og sette mig á einn vídann voll, sem fullur lá af beinum.

2. Og hann leidde mig þar allstadar ígegnum, og siá þú (af beinunum) lá miøg margt á vellenum, og siá þú! þau voru miøg skinenn.

3. Og hann sagde til mín! þú mannsins sonur! meinar þú nockud ad þesse bein skulu verda lifande? og eg sagde: Drottinn Drottinn! þad veitzt þú vel.

4. Og hann sagde til mín: spá þú af þessum beinum, og seg til þeirra: þer skinenn bein, heyred ord Drottins!

5. So seger Drottinn Drottinn, af þessum beinum: siá þú! eg vil innsenda einn anda í ydur, so ad þid skulud lifande verda.

6. Eg vil gefa ydur ædar, og láta kiøt vaxa yfer ydur, og draga høruud þar yfer, og gefa ydur an da, so ad þid skulud verda lifande aptur, og þid skulud formerkia, ad eg em Drottinn.

7. Og eg spáde, so sem mer var bifalad: og siá þú! ad þar vard hark, þá eg spáde: og siá þú! ad þau hrærdu sig, og beinenn komu tilsamans aptur, hvert til síns beins.

8. Og eg sá, og siá þú! ad þar uxu ædar og kiøt á þeim, og hann dró høruud yfer þau, þó var þar enn nú engenn ande í þeim.

9. Og hann sagde til mín: spá þú til vindsins! spá þú mannsins sonur! og seg þú til vindsins, so seger Drottinn Drottinn: vindur! kom þú hingad úr fiórum vedrum, og blás á þessa hina daudu, so ad þeir verde lifande aptur.

10. Og eg spáde so sem hann skipade mer. Þá kom þar andenn í þá, og þeir lifnudu aptur, og þeir reistu sig uppá sínar fætur. Og þad var miøg mikell her.

11. Og hann sagde til mín: þú mannsins sonur! þesse bein eru gervallt Israels hús. Siá þú! nú segia þeir: vor bein eru skinenn, og vor von er fortøpud, og þad er útgert um oss.

12. Þar fyrer spá þú, og seg þú til þeirra, so seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil opna ydrar grafer, og eg vil útleida ydur, mitt fólk, af þeim, og innflytia ydur í Israels land.

13. Og þer skulud formerkia ad eg em Drottinn, þá ad eg hefe opnad ydrar grafer, og útleidt ydur, mitt fólk, af þeim.

14. Og eg vil gefa minn anda í ydur, so ad þer skulud verda lifande aptur, og eg vil innsetia ydur í ydartland, og þer skulud formerkia ad eg em Drottinn, eg tala þad,

og gere þad einnenn, seger Drottinn.

15. Og ord Drottins skede til min, og sagde:

16. Þu mannsins sonur! tak þer eitt kefle, og skrifa þar uppá Juda og Israels børn, og þeirra samlagsmenn. Og tak enn þá eitt kefle, og skrifa þar uppá Josephs, sem er Ephraims kefle, og alls Israels hús, og þeirra samlagsmenn.

17. Og legg þad eina tilsamans vid hitt annad, og þad verde eitt trekefle i þinne hende.

18. Nær ed þitt fólk talar til þín, og seger: vilt þú eigi kunngera oss þad, hvad er þú meinar þar med?

19. Þá seg þú til þeirra: so seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil taka trekefled Josephs, sem er i Ephraims hende, med sínum samlags mønnum, Israels slekte, og eg vil leggia þá til keflesins Juda, og gera þar so eitt kefle af, og þeir skulu vera eitt i minne hende.

20. Og þú skallt so hallda á þeim trekeflunum i þinne hende, á hver ed þú hefer skrifad, so ad þeir siáe þad.

21. Og þú skallt segia til þeirra: so seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil sækia aptur Israels børn til heidinginna, til hverra ed þeir eru burtfarner, og eg vil samansafna þeim allstadar ad, og vil innflytia þá aptur i þeirra land.

22. Og eg vil gera eitt einungis fólk af þeim i landenu, uppá Israels fiallbygdum, og þeir skulu aller tilsamans hafa einn einka kong, og þeir skulu eigi meir skiptast i tvennar þióder, eige heldur i tvø kongaríke.

23. So skulu þeir og eigi meir saurga sig med sínum afgudum og svívirdingum, og allsháttuðum syndum, og eg vil hiálpa þeim út af øllum stødum, i hverium þeir hafa syndgast, og eg vil hreinsa þá, og þeir skulu vera mitt fólk, og eg vil vera þeirra Gud.

24. Og David minn þenare skal vera þeirra kongur, og einn einkanlegur hyrder allra þeirra. Og þeir skulu ganga i mínum rettindum, og hallda mín bodord, og gera þar epter.

25. Og þeir skulu búa i því landenu aptur, sem eg gaf mínum þenara Jacob, i hveru yðrer forfedur þeir bygguu: þeir og þeirra børn, og barnabørn, skulu búa þar inne æfinlega, og David minn þenare skal vera þeirra høfdinge eylíflega.

26. Og eg vil gera fridarens sáttmála vidur þá: þad skal vera einn eylífur sáttmále vid þá, og eg vil þeim vid magt hallda, og margfallda þá, og minn helgedomur skal vera á medal þeirra eylíflega.

27. Og eg vil búa á medal þeirra: og eg vil vera þeirra Gud, og þeir skulu vera mitt fólk.

28. So þad einnenn heidingiarner skulu formerkia ad eg em Drottinn sem Israel gerer heilagann, þá ad minn helgedomur verdur eylíflega á medal þeirra.

## 38. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. Þu mannsins sonur! snú þer á móte Gog, sem er i lande Magog, og hinn ædste høfdinge i Mesech og Thubal, og spá þú af hønum.

3. Og seg þú, so seger Drottinn Drottinn: siá þú! eg vil til vid þig Gog, þu sem ert hinn ædste høfdinge af herrunum i Mesech og Thubal.

4. Siá þú! eg vil umkring snúa

þer, og leggia þer einn bitel í munn, og eg vil útleida þig med allt þitt herlid, hesta og menn, alla vel klæddа; og þad er eitt mikell mannfiølde, þeir ed aller hafa buklara, skiølldu og sverd.

5. Þú flytur med þer Persa, Morlendska, og Lybiska, sem aller hafa skiølldu og hiálma.

6. Þar med Gomer, og allt hans herlid, med húsenu Thorgarma, sem liggur mót nordrenu, med øllu hans herlide, já! þá flytur margt herfolk med þer.

7. Nú vel! bú þig vel út, þú og allur þinn mannflockur, sem er hiá þer, og ver þú þeirra høfuds madur!

8. Þú skallt heimsoktur verda, epter langann tíma umlidenn. Á þeim hinum sídarsta tíma skall þú koma í þad land sem heim er fært aptur frá sverdenu, og tilsamans er komed af mørgu fólke, sem er uppá Israels fiøll, þau ed í langann tíma hafa í eyde legid, og nu útleidt er frá mørgu fólke, og búa aller ugglaust.

9. Þú munt fara upp þangad, og koma þangad med einum stórum stormi, og þú munt vera sem eitt sky, til ad hylia landed, þú og allt þitt herlid, og þad hid mikla fólked med þer.

10. So seger Drottinn Drottinn: á þeim tíma skall þú ásetia þer soddan, og þú munt hafa vonda ásetning, og þeinkia,

11. Eg vil yfirfalla þad land sem er án múrveggia, og koma yfer þá sem so búa med spekt, og ugglauser eru, þeir ed aller sitia utann múrveggia, og hafa hverke slagbranda ne port.

12. Uppá þad, ad þú kunner ræna og rupla, og láta þína hønd ganga yfer þá foreyddu, sem komner eru í búskaparlag aptur, og yfer þad fólked, sem aptur er samansafnad frá heidingiunum, og hafa útseit sig til næringar og kaupskapar, og búa midt í landenu.

13. Ríked Arabia, Dedan, og kaupmennerner á siáfar hafenu, og aller mikels háttar menn, sem þar eru, munu segia til þín: eg meina þad, ad þú sert rettelega komenn til ad ræna, og þú hefir saman dreiegd þinn mannfiølda til ad rupla, uppá þad þú burttaker bæde silfur og gull, og safner fe og audæfum, og fremer miked rán.

14. Þar fyrer spá þú mannsins sonur! og seg þú til Gog, so seger Drottinn Drottinn: er þad eigi so? ad þú munt gæta ad, nær ed mitt fólk byr ugglaust.

15. Þá munt þú koma af þínu takmarke, sem er af þeim endemørkum mót nordrenu, þú og margt fólk med þer, aller á hestum, einn mikell mannfiølde, og eitt megtugt herlid

16. Og þú munt ferdast upphingad, yfer mitt fólk Israel, líka sem sky, ad hylia landed: þetta skal ske á þeim sídarsta tíma. Enn þar fyrer vil eg láta þig koma í mitt land, uppá þad ad hiner heidnu skulu þeckia mig, hvernenn ad eg verd helgadur fyrer þeirra augum á þer, ó þú Gog!

17. So seger Drottinn Drottinn: þú ert sá hinn same af hverum eg sagde fordum: fyrer mína þenara prophetana í Israel, sem spádu á þeim sama tíma, ad eg villde láta þig koma yfer þá.

18. Og þad mun ske á þeim tíma, nær ed Gog kemur yfer Israels land, seger Drottinn Drottinn: þá skal mín reide uppfara í minne grimd.

19. Og í minne vandlætingu tala eg soddann, og í elldenum minnar

reide, Þviad á Þeim sama tíma skal Þar verda ein stór skelfing í Ísraels lande.

20. So ad fiskarner í siónum, og suglarner under himnenum, fena durenn á akurlendunum, og allt Þad sem gengur og hrærer sig á landenu, og aller Þeir menn sem eru á jørdunne skulu skiálfa fyrer mínu auglite, og fiøllenn skulu um koll kastast, og vegger og aller múrar skulu nidur hrynia.

21. Og eg vil kalla sverded yfer hann, uppá øllum mínum fiøllum, seger Drottinn Drottinn, so sierhvert sverded skal vera á móte Þinu ødru.

22. Og eg vil dæma hann med drepsottum og blode, og láta rigna hreggvidre, med hagle, ellde og brennesteine yfer hann og hans herlid, og yfer Þad mikla folked, sem med hønum er.

23. So vil eg Þá vera dyrdarsamlegur, heilagur og aukunnugur fyrer mørgum heidingium, so ad Þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn.

## 39. Capitule.

1. Og Þú mannsins sonur! spá Þú móte Gog, og seg Þú, so seger Drottinn Drottin: siá Þú! eg vil til Þín Þig Gog! Þú sem ert hinn ædste høfdinge í Mesech og Thubal.

2. Siá Þu! eg vil íkring snúa Þer, og locka Þig, og leg vil útflytia Þig frá endemørkunum mót nordrenu, og láta Þig koma uppá Ísraels fiøll.

3. Og eg vil slá bogann ur Þinne vinstre hende, og burtsleygia skeytunum af Þinne hægre hende.

4. Þú skallt á Ísraels fiøllum nidur vid velle lagdur verda, Þú med øllu Þínu herlide, og med Þvi fólke sem er med Þer. Og eg vil gefa Þig fuglunum, hvadan sem Þer koma fliúgande, og dyrunum á mørkenne ad uppeta Þig.

5. Þú skallt vid velle nidurlagdur liggia, Þviad eg Drottinn hefe sagt Þetta:

6. Og eg vil útkasta ellde yfer Magog, og yfer Þá sem ugglauser búa í eyunum, og Þeir skulu formerkia ad eg em Drottinn.

7. Þviad eg vil kunnugt gera mitt heilaga nafn á medal míns folks Ísraels, og eg vil eigi leingur láta mitt hid heilaga nafn vanhelga, helldur skulu hiner heidnu formerkia ad eg em Drottinn, sá Þinu heilage í Ísrael.

8. Siá Þú! Þetta er Þegar komed og skeð, seger Drottinn Drottinn, Þetta er sá dagurenn um hvern eg hefe talad.

9. Og Þeir borgarar í stødunum Ísraels skulu ganga út, og kinda elld, og brenna upp vopnenn, skiølldúna, buklarana, bogana, orvarnar, strídshamrana, og Þau laungu spiótenn, og í siø ár skulu Þeir ellda af Þvi.

10. So ad Þeir skulu eigi Þurfa ad sækia ser videnn á merkurnar, edur høggva hann í skogunum, helldur skulu Þeir hallda elldana af vopnunum. Og Þeir skulu ræna Þá af hverium Þeir voru rænter, og taka af Þeim sem frá Þeim hofdu teked, seger Drottinn Drottinn.

11. Og Þad skal ske á Þeim tíma, Þá vil eg gefa Gog eitt pletz til greftrunar í Ísrael, sem er sá dalurenn Þar geinged er til siáfarens, mót austrenu, so ad Þeir sem Þar ganga framm um, skulu fordast Þann stadenn, Þar fyrer, ad Þeir hafa Þar iardad Gog med sínum mannfiølda, og Þad skal kallast Gogs múgadalur.

12. Enn Ísraels hús skal jarda

þá um siö mánude, sa ad landed meige hreinsad verda.

13. Já, allt fólked í landenu skal nog hafa ad gera ad jarda þá, og þeir munu hafa frægd fyrer þad, ad eg auglyste á þeim deige mína dyrd, seger Drottinn Drottinn.

14. Og þeir munu utskilia fólked þad sem med jafnade skal fara um kring í landenu, og þeir sem grafa hina daudu medur þeim, til ad jarda þá sem epter eru ordner í landenu, so ad þad verde hreinsad aptur, epter siö mánude skulu þeir rannsaka.

15. Og þeir sem fara umkring í landenu, og fáe þeir ad siá í nockrum stad eitthvert manns bein, þá munu þeir setia þar eitt merke upp hiá, þángad til ad þeir sem jarda hina daudu grafa þad einnenn í Gogsmugadal.

16. So skal og sá dalur kallast Hamona, þannenn munu þeir hreinsa landed.

17. Nu, þú mannsins sonur! so seger Drottinn Drottinn, seig þú øllum fuglum, hvadann sem þeir fliuga, og øllum dyrum á mørkenne: safned ydur tilsamans, og komed hingad, renned allavega ad, og komed tilsamans, til míns slátrunaroffurs, sem eg slátra ydur, eitt miked slátrunaroffur á Israels fiøllum, og eted kiøted, og drecked blóded.

18. Þer skulud eta kiøted hinna øflugu, og þer skulud drecka blóded høfdingianna á jørdunne, hrutanna, lambanna, og bafranna, Uxanna, sem allersamann eru feiter og vel alder.

19. Og þer skulud eta þad hid feita, so ad þer skulud sadder verda, og drecka blóded, so ad þer skulud verda drukner af því slátrunaroffrenu sem eg slátra ydur.

20. Metted ydur nú vid mitt bord, af hestum og rídande mønnum, af þeim øflugu, og allshátttudu strídsfólke, seger Drottinn Drottinn.

21. Og eg vil koma minne dyrd á medal heidingianna, so ad aller heidingiarner skulu siá minn dom, sem eg hefe láted gánga, og mína hønd, sem eg hefe lagt á þá.

22. Og so skal Israels hús formerkia, ad eg em Drottinn þeirra Gud, frá þeim deige, og frammveigis.

23. Og heidingiarner skulu formerkia, hvernenn þad Israels hús er burtflutt, fyrer sinna misgerdasaker, og þad þeir hafa syndgast á móte mer, þar fyrer hefe eg byrgt mitt auglitt fyrer þeim, og eg hefe gefed þá í hendur sinna motstødumanna, so ad þeir allersaman skulu falla fyrer sverde.

24. Eg gerde vid þá, líka sem þeirra synder og yfertrodslur høfdu verdskulldad, og byrgde mitt andlitt fyrer þeim.

25. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn, nu vil eg snúa herleidingunne Jacobs, og líknsamur vera øllu Israels húse, og vandlæta um mitt heilaga nafn.

26. Enn þeir munu bera sína forsmón, og allar síner synder, med hverium þeir hafa syndgast á móte mer, nær ed þeir búa ugglauser í sínu lande, so ad engenn skelfe þá.

27. Og nær ed eg hefe sókt þá aptur frá því fólkenu, og samansafnad þeim af sinna óvina lande, og nær ad eg verd helgadur af þeim, fyrer augsyn margra heidingia,

28. So munu þeir þad formerkia, ad eg em Drottinn þeirra Gud, sem let burtflytia þá á medal heidingianna, og hefe samansafnad þeim

aptur í Þeirra land, og láted eigi einn af Þeim epter verda.

29. Og eg vil eigi meir byrgia mitt andlit fyrer Þeim, Þviad eg hefe úthellt mínum anda yfer Israels hús, seger DrottinnDrottinn.

## 40. Capitule.

1. A Þvi tuttugasta og fimmta voru herleidingar áre, Þann tíunda dage í mánudenum, í upphafenu ársins, Þad er Þad fiortanda áred epter Þad ed stadurenn var sleigenn. Rett á Þeim sama deige kom hønd Drottins yfer mig.

2. Og flutti mig Þangad burt fyrer guddomlega syn, sem var í Israels lande. Og sette mig uppá eitt miøg ofurhátt fiall, Þar uppá var so sem einn byggdur stadur, fyrer sunnann framm

3. Og Þá hann hafde flutt mig Þangad, siá Þú! Þá var Þar einn madur, hans yferlitur var sem kopar, hann hafde einn línustreing, og eina mælestaung í sinne hende, og stód under portenu.

4. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! siá Þú! og heyr Þú til med athygle, og hugleid Þú vel ad Þvi sem eg vil syna Þer. Þviad Þú ert Þar fyrer hingad fluttur, ad eg skule syna Þer Þad, so ad Þú skuler kunngera Israels húse allt Þad sem Þú ser her.

5. Og siá Þú! Þar geck einn múrveggur útan um húsed, allt í kringum Þad, og madurenn hafde mælestaungena í hendenne, hún var sex alna laung, hver alenn var einne Þverhønd leingre enn almenneleg alenn. Og hann mællte breiddena á byggingunne eina mælestaung, og eina mælestaung á hædena.

6. Og hann kom til portsins sem lá imot austrenu, og hann ste upp epter Þess troppum, og mællte dyratren á portenu, hvert dyratred var einnrar mælestangar breitt

7. Og hann mællte so einnenn Þau herberginn sem voru beggia vegna hiá portenu, ad leingdenne eina mælestaung, og ad breiddenne eina mælestaung, og rumed á millum herbergianna var fimm alna breidt.

8. Og hann mællte einnen dyratred, innen til hiá portenu, upp ad lopthúsenu eina mælestøng.

9. Og hann mællte lopthúsed innann til hiá portenu, eina mælestaung, og hann mællte lopthused hiá portenu atta alner, og útbroted Þar á tvær alner, og lopthúsed innann til ad portenu.

10. Og Þerbergenn voru Þriu á hveria hlid hiá portenu imot austrenu, ja, Þad eina so breidt sem hitt annad, og Þar stódu útbrot bádumeigenn, Þau voru jafnstór.

11. Þar epter mællte hann viddena dyranna á portenu, sem var tíu alna, og leingdena á portenu Þrettan alna.

12. Og framme fyrer herbergunum var rum bádu meigenn, einnrar alnar, enn herbergenn voru sex alna, beggia vegna.

13. Þar til mællte hann ported fra Þekiunne herbergesins, ínn til Þekiunnar á portenu, fimm alna og tuttugu breidt, og hveriar dyrnar stodu ígegn ødrum.

14. Hann gerde og einnenn útbrot, sextíu alna, og einn forgard fyrer hveriu útbrote, hiá portenu allt umkring.

15. Og ínn til Þess lopthússins hiá Þvi innra portenu Þar ínn er geinged, Þá voru fimmtíu alner.

16. Og Þar voru mióer gluggar ínnan til á herbergiunum, og útbrotenn ínnan verdt hiá portenu allt umkring. Sa voru Þar og ínn-

en til vindaugu á lopthúsenu umkring, og á útbrotunum allt umkring var palmvidar laufaverk.

17. Og hann leidde mig framm leitis til hins ytsta forgardsins, og siá þá! þar vóru herberge, og eitt steinlagt golf í forgardenum, allt umkring, og þriátíu herberge á golfenu.

18. Og þar var eitt hátt steinlagt golf hiá portunum, so langt sem portenn voru, hiá þvi nedsta steinlagda golfenu.

19. Og hann mællte breiddena á þvi nedsta portenu, framan fyrer þeim innsta forgardenum, utan til, hundrad alna, bæde mót austrenu og nordrenu.

20. So mællte hann og einnenn þad ported, sem lá móte nordrenu, í hiá þeim ytsta forgardenum, ad leingdenne og breidenne.

21. Þad hafde og einnenn þriu herberge hvorumeigenn, og þad hafde einnenn sín útbrot, og lopthús, líka so stór sem hia þvi fyrsta portenu, fimmtíu alna ad leingdenne, og fimm alna og tuttugu ad breidenne.

22. Og þad hafde einnenn sín vindaugu, og sín lopthús, sín útskorenn palmvidar lauf, líka sem ported mót austrenu, og þad hafde sió tröppur þar ed upp var genged, og þad hafde sitt lopthús þar framme fyrer.

23. Og ported hiá þeim innsta forgardenum var gegnt þvi portenu sem stod mót nordrenu og austrenu, og hann mællte hundrad alna frá þvi ödru portenu til annars.

24. Þar epter á leidde hann mig mót sudrenu, og siá þú! ad þar var og eitt port á móte sudrenu, og hann mællte þess útbrot og lopthús, líka sem hinna annara.

25. Þad hafde og einnenn vindaugu og lopthús, allt umkring, líka sem þau önnur vindaugu, fimmtíu alna laung, og fimm og tuttugu alna breid.

26. Og þar voru og so sió tröppur upp ad, og eitt lopthús þar framme fyrer, og útskorenn palmvidarlauf, á þess útbrotum á hvorre sídu.

27. Og hann mællte einnenn þad ported hiá þeim innsta forgardenum móte sudrenu, sem var hundrad alna, frá þvi eina sudur portenu til hins annars.

28. Og hann leidde mig enn leingra framm, ígegnum þad sydra ported, í þann innra forgardenn, og mællte þad sama port mót sudrenu, líka so stort sem hin önnur.

29. Medur þess herbergium, útbrotum, og lopthúsum, og medur vindaugum og loptsvölum þar á, líka so stor sem hinn önnur allt umkring, fimmtíu alna laung, og fimm og tuttugu alna breid.

30. Og þar geck einn loptsalur umkring, fimm og tuttugu alna langur, og fimm alna breidur, og hann stód þar framanverdt á móte þeim ytra forgardenum,

31. Og hann hafde útskorenn palmvidar lauf á útbrotunum, og þar voru átta tröppur upp ad ganga.

32. Þar epter leidde hann mig til þess innra portsins imót austrenu, og mællte þad líka so stórt sem hin önnur.

33. Medur þess herbergium, útbrotum, og lopthúsum, og þess vindaugum, og loptsvölum allt umkring, líka so stór sem hin önnur, fimmtíu alna löng, og fimm og tuttugu alna breid.

34. Og þad hafde eitt lopthús gegnt þvi ytsta portenu, og útskorenn palma lauf á útbrotunum bá-

búmeigenn, og átta treppur upp ad.

35. Þar epter leidde hann mig ad þvi portenu mót nordrenu, þad mællte hann líka so stórt sem hin onnur.

36. Medur þess herbergium, útbrotum og loptbúsum, og þess vindaugum og loptsvolum, allt umkring, fimmtíu alna laungum, og fimm og tuttugu alna breidum.

37. Og þad hafde einnenn eitt lopthús gegnt þeim ytsta forgardenum, og útskored palma laufverk á útbrotunum bádu meigenn og átta treppur upp ad.

38. Og nedann til, upp ad útbrotunum, hiá hveru porte, var eitt herberge med einum dyrum, í hvert menn logdu brenneoffred.

39. Enn í lopthúsenu, fyrer portenu, stodu tvo bord á hvera hlid, á hverum þeir skylldu slátra brenne offrenu, synda offrenu, og sakaoffrenu.

40 Og á hlidenne utan til, þar ad genged var upp ad portenu, móte nordrenu, stódu einnenn tvo bord, og til hinnar annarar sídu, under lopthúse portsins, einnenn tvo bord.

41. So stódu á hvera sídu fiogur bord; þad eru átta bord tilsamans, sem menn slátrudu uppá.

42. Og þau fiogur bordenn, sem til brenne offursins voru gerd, þad voru úthøgguer steinar, hálf onnur alenn ad leingd og breidd, og alenn ad hæd, uppá hver menn logdu allra handa verkfære, til ad slátra med brennefornunum og odru offre.

43. Og þar geingu listur útann umkring, beygdar inn ad, þverhandar ad hæd, og á þaug bordenn áttu menn ad leggia þad kioted, sem offrast skyllde.

44. Og þar voru herberge til saungmannanna, utann fyrer þvi innra portenu, í þeim innra forgardenum, eitt hiá þeirre hlidenne upp vid ported, móte nordrenu, þad horfde vid sudrenu, hitt annad upp ad hlidenne mót austrenu, þad horfde vid nordrenu.

45. Og hann sagde til mín: Þau herbergenn móte sudrenu heyra prestunum til, sem þióna skulu í húsenu.

46. Enn þau herbergenn móte nordrenu heyra prestunum til, sem þióna alltarenu. Þesser eru Zadochs børn, hverer alleinasta af bornum Levi skulu frammganga fyrer Drottinn, til ad þióna honum.

47. Og hann mællte plássed í húsenu, sem var hundrad alna langt, og hundrad alna breidt ferkantad, og þar stód eitt alltare rett framan fyrer musterenu.

48. Og hann leidde mig inn í loptsalenn, fimm alna breidann á hvera sídu, og ported á hvera sídu, þriggia alna breidt.

49. Enn lopt salurenn var tuttugu alna langur, og ellefu alna vídur, og hafde treppur sem menn gengu þar upp ad, og þar stódu Pilarar nedann ad, upp ad útbrotenu, einn á hvera hlid.

## 41. Capitule.

1. Og hann leidde mig inn í mústered, og mællte útbrotenn hiá veggiunum, þau voru sex alna víd, á hvera hlid, so vídt sem húsed var.

2. Og portenn voru tíu alna breid, enn veggurenn á hvera hlid hiá portenu var hver fyrer sig fimm alna breidur. Og hann mællte rúmed í musterenu; þad var fiorutíu alna ad leingdenne, og tuttugu alna ad breidenne.

3. Og hann geck innann til þar inn, og mællte dyrnar tvær alner, og dyrnar voru sex alner, og breiddenn dyranna siø alner.

4. Og hann mællte tuttugu alner á leingdena, og tuttugu alner á breiddena hiá musterenu, og hann sagde til mín: Þetta er hid allraheilagasta.

5. Og hann mællte veggenn á húsenu, sex alna ad bræd, þar uppá voru svaler allavegana útann umkring utskiptar í herberge, sem voru fiøgra alna vid á alla vegu.

6. Og þau sømu herberge voru þretten og tuttugu hverumeigenn, eitt hiá ødru; og þar stódu stolpar nedan under, upp vid veggena á húsenu, allavegana umkring, sem þad báru.

7. Og yfer þessum voru enn fleire loptsvaler allt umkring, og sval ernar voru ofann til vídare, so ad menn gengu frá hinne nedstu, og til hinnar sem í mided var.

8. Og frá þeirre í mided var, til hinnar bærstu, og hver ein stód sex alna yfer annare.

9. Og viddenn á þeirre hinne efstu lopt svølunne var fimm alner, og stólparner báru svølernar hiá húsenu.

10. Og þar voru tuttugu alner frá ødrum veggnum til eins annars í húsenu.

11. Og þar voru tvær dyr, vid vindel trøppurnar upp epter, einar á mót nordrenu, og adrar á móte sudrenu, og vindel trøppurnar voru fimm alner á v dd.

12. Og múrenn móte vestrenu var fimmtan og sextíu alna vidur, og níutíu alna langur.

13. Og hann mællte leingdena húsens, þad hafde hundrad alna utar ígegn, murenn og þad sem þar var vid.

14. Og viddenn framan fyrer á húsenu, móte austrenu, med þvi sem þar var vid, var og hundrad alna.

15. Og hann mællte leingdena á byggingunne, med øllu þvi sem þar studde ad, frá einu horninu til annars, þad var hundrad alner, á hvera sídu, med þvi hinu innra musterenu, og lopthúsenu í forgardenum.

16. Med þeim dyrum, vindaugum, hyrningum, og þeim þremur loptsvølum, og standþilenu allt umkring.

17. Hann mællte og einnenn hversu hátt þad var frá jørdunne upp ad vind augunum, og hversu breid þad vind augunn skylldu vera. Og hann mællte fra portenu, inn til hins allrahelgasta, bæde innann og utann, allt umkring,

18. Og þar voru Cherubim, á øllu húsenu, rett umkring, frá nedanverdu og ad efstu á dyrunum, og á veggiunum, og palma laufverk gert á millum Cherub.

19. Og hver Cherub hafde tvø høfud, ødrumeigenn so sem manns høfud.

20. Enn ødrumeigenn so sem eitt Leons høfud.

21. Og dyrnar á musterenu voru ferkantadar, og aller hluter voru lystelega tilsamans setter, hver vid annann.

22. Og tre alltared var þriggia alna hátt, og tveggia alna á leingd og breidd, og þess hyrningar, og allar þess sídur voru af tre, og hann sagde til mín: Þetta er þad bordet sem standa skal fyrer Drottne.

23. Og dyrnar, bæde á musterenu, og hiá þvi allrahelgasta,

24. Høfdu tvo hurdar vænge, sem menn letu upp og aptur.

25. Og þar voru og einnenn

Cherubim, og útskorenn palmvidar lauf á, líka sem á vegginum. Og þar voru sterkar steingur fyrer, gegnt lopthúsenu.

26. Og þar voru á mió vind augu, og mørg útskorenn palmvidar lauf, allt umkring á lopthúsenu, og á vegginum.

## 42. Capitule.

1. Og hann leidde mig út til hins ytra forgardsins, móte nordrenu, á mille herbergianna, sem voru gegnt byggingunne, þeirre sem stód vid musterid, og lau til nordurs, á móts vid mustered.

2. Hver flötur ed var hundrad alna langur, frá portenu mót nordrenu, og fimmtíu alna breidur.

3. Þar voru tuttugu alner á móte þeim innra forgardenum, og ímót steingolfenu, í þeim ytra forgardenum, og þriátíu alner, frá þvi eina hornenu til annars.

4. Og þar var einn flötur innann til fyrer herbergenu, tíu alna breidur, fyrer herbergis dyrunum, þetta lá alltsamann mót nordrenu.

5. Og ofann yfer þessum herbergium voru ønnur miórre herberge, þviad rumed á þvi hinu nedsta, og þvi herbergenu sem í mided stód, var eigi stórt.

6. Þviad þad voru þríu herberge ad hæd, og høfdu þó engann stólpa, líka sem þeir stólparner sem forgardarner høfdu, helldur voru þau sett slett hvert ofann á annad.

7. Og sá ytre forgardurenn var umkringdur med einum múrvegg, hiá hverium ad stódu herbergenn, hann var fimmtíu alna langur.

8. Og herbergenn stódu hvert epter ødru, og so fimmtíu alna ad leingd, hiá þeim ytra forgardenum, enn rumed framme fyrer musterenu var hundrad alna langt.

9. Og nidre fyrer herbergiunum var einn flötur á móte austrenu, á hverium þad geinged var af þeim ytra forgardenum.

10. Og þar voru einnenn herberge upp vid murenn mót austrenu.

11. Og þar var og einn flötur framme fyrer, líka sem fyrer hinum ødrum herbergium móti nordrenu, og aller hluter voru líka med leingd og breidd, og øllu þvi ed þar var á, líka so sem ofann á hinum ødrum.

12. Og mót sudrenu voru einnenn líka þvilík herberge, medur sínum dyrum, fyrer þeim flötnum voru dyrnar mót sudrenu, til hverra ad menn koma, frá þeim murnum sem liggur ímóte austrenu.

13. Og hann sagde til mín: Þau herbergenn móte nordrenu, og herbergenn móte sudrenu, gegnt musterenu, þau heyra til helgedómenum, í hverium þad prestarner matar neyta, nær ed þeir offra Drottne þad hid allraheilagasta offred, og þar skulu þeir innleggia þau allraheiløgustu offur, sem eru mataroffrenn, syndaoffrenn, og sakaoffrenn, þviad þad er einn heilagur stadur.

14. Og nær ed prestarner ganga þangad inn, þá skulu þeir eigi ganga út aptur af helgedómenum, í þann ytra forgardenn, helldur skulu þeir ádur leggia af ser sín klæde, í hverium þeir hafa þiónad, í þau sømu herbergenn, þviad þau eru heiløg, og skulu færa sig aptur í ønnur klæde, og ganga so út á medal folksins.

15. Og þá ed hann hafde mællt mustered alltsaman innantil, leidde hann mig út ad portenu, móte austrenu, og mællte frá þvi enu sama, alla vega umkring.

16. Móte austrenu mællte hann fimm hundrud mælesteingur á leingd.

17. Og hann mællte so einnenn móte nordrenu, fimm hundrud mælesteingur ad leingd.

18. Og líka so móte sudrenu, fimm hundrud mælesteingur ad leingd.

19. Og þá ed hann kom móte vestrenu, þá mællte hann einnenn fimm hundrud mælesteingur ad leingd.

20. So hefir múrenn, sem hann hafde mællt, á hvera sídu ferkantadur allt umkring, fimm hundrud mælesteingur, hvar med þad hid heilaga skyllde fráskiled verda frá þvi óheilaga.

## 43. Capitule.

1. Og hann leidde mig aptur ad portenu mót austrenu.

2. Og siá þú! ad dyrdenn Guds Israels kom úr austrenu, og hliodade, so sem miked vatn hliodar. Og þad lyste miog á jördunne af hans dyrd.

3. Og þad var líka so sem sú synenn, sem eg hafde sed hiá vatnenu Chebar, í þann tíma ed eg kom, ad staðurenn skyllde í eyde leggiast. Þá fell eg nidur á mína ásiónu.

4. Og dyrdenn Drottins kom inn í húsed, inn um ported á móte austrenu.

5. Þá lypte einn vindur mer upp, og flutti mig inn í þann innra forgardenn, og siá þú! ad dyrdenn Drottins uppfyllte húsed.

6. Og eg heyrde einn tala til mín, út af húsenu, og einn madur stód hiá mer.

7. Og sagde til mín: Þú mannsins sonur! þetta er stadur míns tignar sætes, og stadur minna fóta, á hverium ad eg vil búa eyliflega, á medal Israels barna. Og Israels hús skal eigi meir saurga mitt hid heilaga nafn, hverke þeir ne þeirra konungar, medur þeirra hórun, og medur daudum líkamum sinna konunga í þeirra hædum.

8. Þeir sem settu sína þreskullda hiá mínum þreskyllde, og sína dyrastafe, hiá mínum dyrastöfum, so þar var eigi utann einn veggur á millum mín og þeirra. Og þeir hafa so saurgad mitt hid heilaga nafn, medur sínum svívirdingum sem þeir gerdu, þar fyrer hefe eg einnenn fyreydt þeim í minne reide.

9. Enn nú skulu þeir burtkasta sinne hórun, og líkum sinna konga, langt burt frá mer, og eg vil búa á medal þeirra eylíflega.

10. Og þú mannsins sonur! syn þú Israels húse þetta mustere, ad þeir skammest sín fyrer sinna misgerda saker, og lát þú þá taka eina skyra fyrermindan þar af.

11. Og nær ed þeir skammast sín, vegna allra sinna verka, þá syn þeim þetta form og fyrermyndan á húsenu, og þess útgang og inngang, og alla þess skickun, og allar þess sidveniur, og alla þess setninga, og allt þess lögmál, og skrifa þad fyrer þeim, so ad þeir skulu hallda allar þess skipaner, og allar þess sidveniur, og gera þar epter.

12. Enn þetta skal vera hússens lögmál: á hædum fiallsins, so vídt sem þess takmark er, þá skal þad vera hid allrahelgasta; þetta er hússens lögmál.

13. Enn þetta er mælinginn alltaresins, epter þeirre a[illegible]enn, sem er einne þver hönd leing[illegible], enn ein almennleg alenn. Fotst[illegible]urenn á þvi er ein alenn á hæd, og [illegible]innrar alnar breidur, og alltared nemur upp ad listenne, hver ad er spannar

breid, allt umkring, og þad er þess hæd.

14. Og frá fótstallenum af jørdunne, til hins nedsta þrepsins, er tveggia alna hátt, og einnrar alnar breidt. Enn frá þvi sama litla þrepenu, til hins mikla þrepsins, er fiøgra alna hátt, og alnar breidt.

15. Og Harel fiøgra alna hátt, og frá Ariel ofanverdum fiøgur horn.

16. Og Ariel var tolf alna ad leingd, og tolf alna ad breidd, ferkantad.

17. Þad effsta þreped var fiortan alna langt, og fiortan alna breidt, ferkantad, og þar geck ein list allavega utan umkring, sem var hálfrar alnar breid, og fótstallurenn þar á, var alen ad hæd, og troppurnar voru imót austrenu.

18. Og hann sagde til mín: Þú mannsins sonur! so seger Drottinn Drottinn: Þetta skal vera sidvenia alltaresins á þeim deige, nær ed þad er gert, ad þeir legge brenneoffred þar uppá, og dreife þar á blódenu.

19. Og þú skallt gefa prestunum af Levi, og Zadochs sæde, sem fyrer mer ganga, til ad þióna mer, einn ungann uxa, til syndaoffurs, seger Drottinn Drottinn.

20. Og þú skallt taka af þvi sama blóde, og støcka þvi á þau fiøgur horninn, og á þær fiorar hyrningar, hiá þeim effsta palenum, og allt umkring listena, þar med skallt þú hreinsa þad, og fridþægia.

21. Og þú skallt taka uxann syndaoffursins, og b[illegible] na hann upp í einum stad, sem [illegible] er til einkadur í húsenu, úte fyrer helgedomenum.

22. Enn þann annann dagenn skallt þú offra einum kiarnhafre, sem er lastalaus, til syndaoffurs, og hreinsa alltared þar med, líka sem þad var hreinsad med uxanum.

23. Og nær ed hreinsunenn er nú útendud, þá skallt þú offra einum ungum uxa, sem er lastalaus, og einum hrút, af hiørdenne, lastalausum.

24. Og þú skallt offra þeim bádum fyrer Drottne, og prestarner skulu dreifa þar salte á, og fornfæra þá so Drottne, til eins brenneoffurs.

25. So skall þú, sio daga í samt, hvern epter annann, dagléga offra einum kiarnhafre, til syndaoffurs, og þeir skulu offra einn ungann uxa, og einum hrut af hiørdenne, bádum lastalausum.

26. Og skulu so, í sio daga, forlíka og hreinsa alltared, og uppfylla sínar hendur.

27. Og epter þá sømu daga skulu prestarner, á þeim áttunda deigenum, ætíd og alla tíma epter þad, offra ydru brenneoffre, og ydru þacklætisoffre uppá alltarenu, so vil eg verda ydur nádarsamlegur, seger Drottinn Drottinn.

## 44. Capitule.

1. Og hann leidde mig út aptur, ad þvi ytsta portenu helgedomsins, móte austrenu, enn þad var tilluckt.

2. Og Drottinn sagde til mín: Þetta port skal vera tilluckt, og eigi upplukast, og inn um þad skal enginn ganga, utann alleinasta Drottinn Gud Israels, hann skal ganga þar inn um, og þad skal vera tilluckt.

3. Ad høfdingianum þó undann teknum, þvíad høfdinginn skal sitia þar inne, til ad neyta brauds fyrer Drottne, hann skal inn ganga um løpthúsed, og ganga so út aptur um þad sama.

4. Sídann leidde hann mig ad þvi portenu móte nordrenu, fram-

me fyrer húsenu, og eg sá: og siá þá! ad húsed Drottins vard fullt af dyrd Drottins, og eg fell framm á mína ásiónu.

5. Og Drottinn sagde til mín: Þú mannsins sonur! hygg þú gløggslega ad, og siá þú! og hlyd þú innvirdelega øllu þvi, hvad eg vil segia þer; af øllum sidvenium og setningum í húse Drottins, og gæt vel ad þvi, hvernenn ad þar skal inngánga, og ad øllum útgaungum helgedomsins.

6. Og seg þú þvi óhlydna Israels huse, so seger Drottinn Drottinn: Þer af Israels húse gered þar hellst afmiked af, med allar ydar svívirdingar.

7. Þviad þer innleided í minn helgedom framande fólk med einu óumskornu hiarta, og óumskornu hollde, fyrer hvera ad þer óhelged mitt hús, nær ed þer offred mínu braude. feitenne og blódenu.

8. Og brioted so minn sáttmála med øllum ydrum svívirdingum og hallded ei sidveniurnar míns helgedoms, helldur gered ydur siálfum nyar sidveniur, í mínum helgedome.

9. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: Þar skal engenn framande, medur einu óumskornu hiarta, og óumskornu hollde koma í minn helgedom, af øllum þeim útlendingum sem eru á medal Israels barna.

10. Já, og eigi helldur Levitarner, sem burt viku frá mer, og eru geingner villuvega fra mer, med Israel, epter þeirra afgudum, þar fyrer skulu þeir bera sínar synder.

11. Enn þeir skulu þiona í mínum heldedome, í húsdyranna embætte, og þeir skulu þiona í húsenu, og skulu eigi gera utan slátra brenneoffrenu, og ødru þvi offre sem fólked befir hingad, og standa fyrer prestunum til ad þióna þeim.

12. Af þvi þeir þionudu hinum ødrum, fyrer þeirra afgudum, og gáfu so Israels húse eina hneixlan til ad syndgast. Þar fyrer hefe eg útrett mína hønd yfer þá, seger Drottinn, ad þeir hliota ad bera sínar synder.

13. Og ei skulu þeir nálægiast mig, til ad frammflytia mitt kennemanns embætte, og eige helldur ad koma til nockurs míns helgedoms, hiá þvi allraheilagasta, helldur skulu þeir bera sína vanvirdu, og sínar svívirdingar, sem þeir frømdu

14. Þar fyrer hefe eg sett þá til voktunarmanna, til allrar þionustu í húsenu, og til alls þess sem menn skulu gera þar inne.

15. Enn prestarner af Levitunum, Zadochs børn, sem helldu sidveniurnar míns helgedoms, þá ed Israels børn fellu frá mer, þeir skulu ganga fyrer mig, og þiona mer, og standa framme fyrer mer, so ad þeir skulu offra mer þvi enu feita og blodenu, seger Drottinn Drottinn.

16. Og þeir skulu ganga inn í minn helgedóm, og ganga fyrer mínu borde, ad þiona mer, og hallda mínar sidveniur.

17. Og nær ed þeir vilia ganga inn um ported þess inra forgardsins, skulu þeir færa sig í línklædenn, og eigi neitt ullklæde á ser hafa, so leinge sem þeir þióna í portenu innra forgardsins.

18. Og þeir skulu hafa línskart á sínum høfdu *, og af líne niburklæde um sínar lendar, og eige skulu þeir gyrda sig í sveita.

19. Og nær ed þeir ganga einhveriu sinne út til folksins, til þess ytra forgardsins, þá skulu þeir færa sig af þeim klædunum, í hverium

þeir hafa þionad, og leggia þau enn sóma í herberge helgedómsins, og fara sig aptur í ønnur føt, og helga eigi folked í sínum eigenn klædum.

20. Eigi skulu þeir raka sín høfud, og þeir skulu ei helldur láta háred vaxa miøg offalangt, helldur skulu þeir láta kringskera háred.

21. Og eingenn prestur skal nockud vín drecka, nær þeir skulu ganga í þan innsta forgardenn.

22. Og enga eckiu, ne þá sem vidmann er skilenn, skulu þeir taka ser til eigennkonu, helldur eina mey af sædenu hússens Israels, edur eina epterlátna prests eckiu.

23. Og þeir skulu kenna mínu fólke, so þad þeir vite, ad gera greinarmun á millum hins heilaga, og hins óheilaga, og á mille hins hreina, og hins óhreina.

24. Og nær ed þar kemur eitt hvert málefne fyrer þá, þá skulu þeir standa og dæma um þad, og urskurda þad epter mínum lagaretté, og hallda mín bodord og sidveniur, og hallda allar mínar hátíder, og helga mína sabbathsdaga.

25. Og þeir skulu eigi ganga til nockurs framlidens, og saurga sig, utann alleinasta til fødurs og modurs, sonar eda dottur, brodurs eda systur, sem eigi enn nu hefir gift vered; yfer þeim meiga þeir saurga sig.

26. Og madur skal telia siø daga epter þad ed hann er hreinsadur.

27. Og nær ed hann geingur inn aptur í helgedómenn, í þann innsta forgardenn, so skal hann offra sínu syndaoffre, seger Drottinn Drottinn.

28. Enn arfleifdenn, sem þeir skulu hafa, vil eg sialfur vera, þar fyrer skulud þer ecke land gefa þeim í Israel til eignar, þviad eg em þeirra arfleifd.

29. Þeir skulu hafa sitt upphellde af mataroffrenu, syndaoffrenu, og sakaroffrenu, og allt þad sem forbannad er í Israel, þad skal vera þeirra.

30. Og allur hinn fyrste ávøxtur, og frumgetningarner, af øllu upphafningaroffre, þad skal vera prestanna. Þer skulud og einnenn gefa prestunum hid fyrsta af øllum mat, so ad blessunenn skule vera í þínu húse.

31. Enn þad sem er eitt hræ, edur þad sem dyrbited er, se þad af fuglum, eda fenade, þad sama skulu prestarner eigi eta.

## 45. Capitule.

1. Nær ed þer útskipted nu landenu med hlutfalle, þá skulud þer afskilia eitt upphafningaroffur af landenu, þad sem Drottne skal helgad vera, fimm og tuttugu þusunder (mælestøpt) ad leingd, og tíu þusunder ad breidd.

2. Sa støturenn skal helgadur vera, so langt sem hann nær. Og þar út af skulu fimm hundrud (mælestøpt) koma til helgedómsins ferkantad, og þar til eitt friálslegt rum, allt umkring, fimmtín alna.

3. Og á þeim sama støtnum, sem er fimm og tuttugu þusunder mælestøpt ad leing, og tíu þusunder breidur, þá skal helgedómurenn standa, og þad hid allrahellagasta.

4. Enn þad epter verdur af þvi heilaga landenu skal heyra kennemønnunum til, sem þiona í helgedómenum, og ganga fyrer Drottne til ad þiona hønum, so ad þeir hafe rúm til húsanna, og þad skal einnenn heilagt vera.

5. Enn þeir Levitarner, sem þiona fyrer húsenu, skulu einnenn hafa fimm og tuttugu þusunder mæle-

skøpt ad leingd, og tíu þusunder ad breidd, í sitt hlutskipte til tuttugu herbergia.

6. Og til stadarins skulud þer og einnenn láta einn fløtenn fyrer allt Israels hús, fimm þusunder mæleskøpt á breidd, og fimm og tuttugu þusunder á leingd, nærst þeim fløtnum sem adskilður er til helgedomsins.

7. Þer skulud einnenn gefa høfdingianum eitt pláts á bádar sídur, á millum kennemanna fløtsins, og á millum stadarfløtsins, imóte vestrenu, og imót austrenu, og hann skal jafnlangur mót austrenu og vestrenu.

8. Þad skal vera hans eignarskipte í Israel, so ad míner høfdingiar skule eigi taka frammveigis þad minu fólke tilkemur, helldur skulu þer láta Israels folk bihallda landenu til sinna kynkvísla.

9. Þvi so seger Drottinn Drottinn: þer Israels høfdingiar hafed gert þad nogu leinge: láted af yfergange og ofbellde, og gered hvad rett og gott er, og láted af þvi ad útdrífa mitt folk! seger Drottinn Drottinn.

10. Þer skulud hafa rettar vøger, og rett mælekerølld, og rettann mæler.

11. Epha og Bath skulu jafnar vera, so ad einn Bath skal hallda einn tíunda part af einum Homer, og Epha einn tíunda part og so af Homer, þviad hvertveggia skal þad mælast epter einum Hormer.

12. Einn Siclus skal hafa tíu Gera, og ein Mina gerer tuttugu siclos, fimm og tuttugu siclos, og fimmtan Siclos.

13. Þetta skal nu vera upphafningaroffred, sem þer skulud upphefia, sem er hinn siøtte partur af einum Epha, af einum Homer hveitis, og einn siøttungurenn af einum Epha, af einum Homer byggs.

14. Og þer skulud gefa einn Bath af oleum, sem er sá hinn tíundi Bath af einum Cher, og hinn tíundi partur af einum Homer, þviad tíu Bath gera einn Homer.

15. Og eitt lamb af tveim hundrudum sauda, af þeirre hiørdenne sem er í Israels grashaga, til mataoffurs, brenneoffurs, og þacklætisoffurs, til einnar forlíkunar fyrer þá, seger Drottinn Drottinn.

16. Allt fólked í landenu skal færa soddann upphafningaroffur, til høfdingians í Israel.

17. Og høfdingenn skal offra sínu brenneoffre, og mataroffre, og drickiaroffre, á hátídum, og tunglkomum, og sabbathsdøgum, og á øllum hátídum hússens Israels. Þar til med skal hann gera syndaoffur, og mataroffur, og brenneoffur, og þacklætisoffur, til einnrar forlíkunar fyrer Israels hús.

18. So seger Drottinn Drottinn: á þeim fyrsta deigenum þess fyrsta mánadarins, skallt þú taka einn ungann uxa, sem er lastalaus, og hreinsa helgedómenn.

19. Og presturenn skal taka af syndaoffursins blóde, og dreifa þvi á stólpana í húsenu, og á þau fiøgur hornenn á trøppuuum alltaresins, med stólpanum portsins þess innsta forgardsins.

21. Líka so skallt þú og einnenn gera á þeim siøunda deigenum í mánudenum, ef ad nockur kann ad hafa villt fared, eda forsed sig, ad þer hreinsed húsed.

21. A þeim fiortanda deige hins fyrsta mánadar, þá skulud þer hallda Paskana, og í siø daga heilagt hallda, og eta ósyrt braud.

22. Og á þeim sama deigenum skal høfdingenn offra fyrer sig, og

fyrer allt fólked í landenu, einum uxa, til syndaoffurs.

23. Enn á þeim siø hátídar døgum skal hann hvern dag gera Drottne eitt brenneoffur, sem eru siø uxar, og siø hrutar, sem lastalauser eru, og einn kiarnhafur til syndaoffursins.

24. Enn til matoffursins skal hann offra einum Epha, til eins uxa, og einum Epha, til eins hruts, og eitt hin med oleum, til hvers Epha.

25. A þeim fimmtanda deigenum hins siøunda mánadar skal hann heilagt hallda, í siø daga, hvern epter annann, eins so sem þá adra siø daga, og hallda þá eins lïka so med syndaoffre, brenneoffre, mataroffre, og oleum.

## 46. Capitule.

1. So seger Drottinn Drottinn: Þad ported, í þeim innsta forgardenum, sem er móte austrenu, skal vera tillukt þá sex virka daga, enn á sabbathsdøgunum, og á tunglkomunum skal þad upplukast.

2. Og høfdingenn skal ganga utann til under lopthúsed á portenu, og standa vid stólpana í portenu. Og prestarner skulu offra hans brenneoffre, og þacklætisoffre, enn hann skal tilbidia á þroskyllde portsins, og ganga sídann út aptur, enn ported skal oped vera til kvollds.

3. Og fólked í landenu skal eins lïka so tilbidia fyrer Drottne, í þess sama ports dyrum, á sabbathsdøgunum, og tunglkomu hátídum.

4. Þad brenneoffred sem høfdingenn skal offra fyrer Drottne, á sabbathsdeigenum, skal vera sex lømb, sem eru lastalaus, og eirn hrútur lastalaus.

5. Og eitt Epha matar offurs, til eins hrutsins, til mataroffursins, enn til lambanna, so miked sem hans hønd gefur, til mataroffursins, og eitt Hin med oleum, til eins Epha.

6. Enn á tunglkomunum skal hann offra einum ungum uxa, sem er lastalaus, og sex lømbum, og einum hrút, og so lastalausum.

7. Og einn Epha, til Uxans, og einn Epha, til hrutsins, til mat offursins, enn til lambanna so miked sem hann gaupnar yfer, og einn Hin oleum, til eins Epha.

8. Og nær ed høfdingenn gengur inn þangad, þá skal hann ganga ígegnum lopthúsed portsins, og ganga so þann sama veg út aptur.

9. Enn fólked í landenu, sem kemur fyrer Drottinn, á þeim stærstu hátídum, ad tilbidia, og gengur inn ad portenu móte nordrenu, þá skal þad ganga út aptur um þad ported móte sudrenu. Og hverer sem inganga um þad ported móte sudrenu, þá skulu þeir útganga um þad ported móte nordrenu. Og þeir skulu eigi út aptur ganga um þad sama ported sem þeir eru inngenguer, helldur skulu þeir ganga rett framm, og so út.

10. Enn høfdingenn skal ganga bæde inn og út med þeim.

11. Enn á helgum døgum, og þeim stærstu hátídum, skal offrast til eins uxa, eitt Epha, og til lambanna, epter þvi sem hans hønd megnar, og eitt hin oleum, til eins Epha.

12. Enn nær ed høfdingenn vill gera Drottne eitt viliuglegt brenneoffur, edur þacklætisoffur, so skal upplukast fyrer honum ported mót austrenu, ad hann meige so offra sínu brenneoffre, og þacklætisoffre, lïka sem hann er annars vanur ad offra á sabbathsdøgum, og nær ed

hann gengur út aptur, þá skal porteð látast aptur epter honum.

13. Og daglega skal hann gera Drottne eitt brenneoffur, sem er, eitt ársgamalt lamb lastalaust, þvi skal hann essra hvern morgun.

14. Og hann skal hvern morgun leggia þar uppá einn settung af einu Epha, til mataroffurs, og einn þridiung af einu Hin oleum, til ad vøkna med hveite misled, Drottne til eins mataroffurs: þad skal vera einn æfennlegur rettur, um þad hid daglega offred.

15. Og so skulu þeir hvern morgun offra lambenu, med mataroffrenu, og oleum, til eins dagleg brenneoffurs.

16. So seger Drottinn Drottinn: nær einn høfdinge gefur einhverjum af sínum sonum eina gáfu, af sinne arfleifd, þeirre hinne sømu skulu hans syner bíhallda, og ad erfdum eignast.

17. Enn gefe hann nockorum af sínum sveinum eitthvad af sinne arfleifd, þad skulu þeir eignast til frelsunar árfins, og þá skal þad falla til høfdingians aptur, þviad hans arfleifd skal alleinasta erfast af hans sonum.

18. Og høfdingenn skal eigi neitt hafa frá fólkenu, af þeirra arfleifd, og eigi ad drífa þá af þeirra eigenn gotse. Helldur skal hann láta sitt eiged gots sínum børnum siálfs til erfdar falla, so þad engenn af mínu fólke skule burtdrífast af sinne eign.

19. Og hann leidde mig under inngangenn hiá hlidenne á portenu, imót nordrenu, til helgedomsins herbergis, sem kennemønnunum tilheyrde, og siá þú! ad þar var eitt rúm í einnre hyrningunne, mót vestrenu.

20. Og hann sagde til mín: þetta er sá stadurenn, þar ed prestarner skulu sioda sakaoffred, og syndaoffrid, og baka mataroffred, so ad þeir þurse eigi ed bera þad út um hinn ysta forgardenn, til ad helga fólked.

21. Þar epterá leidde hann mig út til þins ysta forgardsins, og bad mig ad ganga í þan fiøgur hornenn á forgardenum, og siá þú! ad þar voru, í hverium af þeim fiórum hornum, adrer smáir forgardar, til ad veyfa reykelsenu í.

22. Førutíu alna langer, og þriátíu alna breider, aller fiórer med einum skamte.

23. Og þar geck einn lítell mur utan umkring hvern einn af þeim fiórum, þar voru og gerdar elldstór, nedan til upp vid murenn.

24. Og hann sagde til mín: þetta er þad matgerdar húsed, í hveru þenararner hússens skulu sióda þad sem fólked offrar.

## 47. Capitule.

1. Og hann leidde mig inn aptur ad dyrum mustereſins, og siá þú! ad þar flaut eitt vatn, út under þrøskulldenum mustereſins, mót austrenu, þviad dyrnar musteresins horfdu og einnenn á móte austrenu. Og vatned rann á þá hægre hlidena hiá musterenu, hiá alltarenu, mót sudrenu.

2. Og hann leidde mig út ad portenu mót nordrenu, frá þvi ysta portenu mót austrenu, og siá þú! ad þar sprátt vatn út af hinne hægre hlidenne.

3. Og madurenn geck út móte austrenu, og hafde einn mælestreing í hendenne, og hann mællte þúsund alner, og leidde mig yfer vatned, þangad til ad þad tók mer í økla.

4. Og hann mællte enn einu

finne þusund alner, og leidde mig ígegnum vatned, þangad til þad tók mer í kne. Og hann mællte enn einu finne þusund alner, og let mig ganga ígegnum þad, þar til ad þad tók mer uppá lendar."

5. Þá mællte hann enn þusund alner, og þá vard þad so diupt, ad eg grynnti eigi leingur, þviad vatned var so diupt, ad þar mátte synda yferum, og eg kunne eige ad ná til botnsins.

6. Og hann sagde til mín: þú mannsins sonur! þetta hefir þú nu sed. Og hann leidde mig aptur til baka, til lækiarbackans.

7. Og siá þú! ad þar stodu nær sta mørg tre hiá strøndunne, beggia meigenn.

8. Og hann sagde til mín: þad vatned sem rennur út hedann, móte austrenu, þad skal renna ígegnum slettlended, út í siofarhafed, og frá þvi eina siáfar hafenu í þad annad. Og nær ed þad kemur út í hafed, þá skal þad sama vatn vera heilsusamlegt.

9. Ja! allt þad sem þar lifer í, og hrærer sig, þangad sem ed þesser vatns straumarner koma, þad skal lifa, og skal hafa miøg marga fiska, og aller skulu þeir lifa, og heilsusamleger verda, hvar ed þesse vatnsstraumur inn kemur.

10. Og fiskararner skulu standa vid þann enn sama, frá Engeddi og inn til En Eglaim, þá skulu þeir útbreida fiskanetenn. Þviad þar skulu vera miøg marger fiskar, líka sem í þvi mikla siáfar hafenu.

11. Enn sikenn, og pytterner þar hiá, þeir munu eigi heilnæmer vera, helldur vera sallter.

12. Og hiá strøndenne, vid sama straum beggiameigenn, skulu vaxa allrahanda friosamleg alldintre, og þeirra laufblød skulu eigi visna, og þeirra alldin skulu eigi rotna, og hvern mánud skulu þau bera nyann ávøxt, þviad þeirra vatn rennur út af helgedomenum: þeirra ávøxtur skal duga til matar, og þeirra laufblød til lækninga.

13. So seger Drottinn Drottinn: þesse eru þau landamerke, epter hverum þer skulud útskipta landenu, á millum þeirra tolf kynkvíslanna Israels, þviad tvo hlutskiptenn heyra Josephs ættleg til.

14. Og þeir skulu skipta þvi jafnt út, einum sem ødrum, þviad eg hefe upphafed mína hønd, so þad eg vil gefa ydrum forfedrum, og so ydur, landed til arfleifdar.

15. Þesse eru nú endemørk landsins móte nordrenu, frá þvi mikla siáfarhafenu, frá Hethlon, inn til Zedad, sem er,

16 Hemath, Berotha, Sibreim, sem nær tilsamans vid Damasco, og Hemath, og Hazar Tichon, sem liggur vid Haveran.

17. Þad skulu vera landamerkenn frá hafenu inn til Hazar Enon, og Damascus og Hemath skal vera landsendinn móte nordrenu.

18. Enn landemerkenn móte austrenu skulud þer mæla millum Haveran og Damasco, og millum Gilead, og millum landsins Israels vid Jordan, inn til siáfarhafsins móte austrenu. Þad skulu vera landemerkenn móte austrenu.

19. Enn landamerkenn móte sudrenu, eru frá Thamar, inn til þrætu vatnsens í Cades, og móte vatnsfallenu, til hins mikla hafsins. Þad skulu vera landamerkenn móte sudrenu.

20. Og landamerkenn móte vestrenu eru frá þvi enu mikla hafenu, beinleidis inn til Hemath. Þad skulu vera landamerkenn móte vestrenu.

21. So skulud þer nu útskipta landenu á medal kynkvíslanna Israels.

22. Og nær ed þer kasted hlutfallenu, til ad útskipta landenu á medal ydar, so skulud þer hallda þá hina framande sem búa hiá ydur, og ala þar børn hiá ydur, líka sem innbyggiarana landsins á medal Israels barna, og þeir skulu lu einnenn hafa sína hlutdeilld í landenu, hver sem einn á medal þess slektis sem hann byr hiá, seger Drottinn Drottinn.

## 48. Capitule.

1. Þesse eru nøfnenn kynkvíslanna frá nordur áttenne, frá Hethlon, móte Hemath, og HazarEnon, og frá Damasco mót Hemath.

2. Það skal Dan hafa í sitt hlutskipte, frá austrenu til vesturs.

3. Asser skal hafa í sitt hlutskipte, hid nærsta hiá Dan, frá austrenu, til vestursins.

4. Nephthali skal hafa sitt hlutskipte nærst hiá Asser, frá austrenu, inn til vestursins.

5. Manasse skal hafa sitt hlutskipte hiá Nephthali, frá austrenu, inn til vestursins.

6. Ephraim skal hafa sitt hlutskipte nærst hiá Manasse, frá austrenu, inn til vestursins.

7. Ruben skal hafa sitt hlutskipte nærst hiá Ephraim, frá austrenu, inn til vestursins. Juda skal hafa sitt hlutskipte nærst hiá Ruben, frá austrenu, inn til vestursins.

8. Enn þer skulud fráskilia einn hlut, nærst hiá Juda, frá austrenu, inn til vestursins, sem vera skal fimm og tuttugu þusunder mæleskøpt ad breidd og leingd, ein deilldenn af þvi hlutskiptenu, sem tekur frá austrenu, inn til vesturs-ins, þar inne skal helgedómurenn standa.

9. Og þar út af skulud þer fráskilia Drottne eina hlutdeilld, fimm og tuttugu þusunder mæleskøpt ad leingd, og tíu þusunder mæleskøpt ad breidd.

10. Og sú heilaga hlutdeilld skal heyra prestunum til, sem er fimm og tuttugu þusund mæleskøpt ad leingd, móte nordrenu, og móte sudrenu, og tíu þusunder ad breidd, móte austrenu og vestrenu. Og helgedómurenn Drottins skal standa þar midt innanní.

11. Það skal helgad vera til prestanna, sem eru af Zadochs børnum, hverer ad hélldu mínar siðvenjur, og eru ei affallner med Israels børnum, so sem það Levitarner eru affallner.

12. Og þesse fráskillda hlutdeilldenn skal vera þeirra eign af landenu, í hveru það hid allraheilagasta er, hiá Levitanna landamerkum.

13. Enn Levitarner skulu hafa í hiá prestanna landamerkum, fimm og tuttugu þusunder mæleskøpt ad leingd, og tíu þusunder ad breidd, líka sem hiner adrer. Því ad øll leingdenn skal hafa fimm og tuttugu þusunder mæleskøpt og breiddenn tíu þusund mæleskøpt.

14. Og þeir skulu ei neitt selia þar af, edur burt fá, so ad eigi neitt skule burt fargast, af hinum fyrsta landsins ávexte, því ad það em Drottne helgad.

15. Enn þau fimm þusund mæleskøpt, sem epter eru ordenn á breiddena, á móts vid þau fimm og tuttugu þusund mæleskøpt á leingdena, þau skulu til stadarins óhelg vera, til ad búa þar inne, og so til forstadanna, og stadurenn skal standa þar midt innanní.

16. Og þad skal vera hans skamtur, fiórar þusunder og fimm hundrud mælekopt, mót nordrenu og sudrenu. Í sama máta á móte austrenu og vestrenu, einnenn fiórar þusunder, og fimm hundrud.

17. Enn forstadurenn skal hafa tvo hundrud og fimmtiu mælekopt móte nordrenu, og móte sudrenu, so einnenn líka tvo hundrud og fimmtíu mælekopt imóte austrenu, og vestrenu.

18. Enn þad epter er orded, af þeirre somu leingdenne, hiá þvi hinu frátkilda og helgada, sem eru tíu þusund mælekopt móte austrenu, og móte vestrenu, þad skal heyra til þeirra uppheldis sem þióna í stadnum.

19. Og þeir sem erfidi eiga í stadnum skulu vera af öllu Israels slekte.

20. So ad sú gervöll afdeilingenn sem hefir fimm og tuttugu þusund mælekopt, og er ferkontud hún skal vera ein heilög afdeiling, til stadarens eigenndoms.

21. Enn hvad sem þar er enn nú epter beggia megenn, hiá þeirre abskildre heilagre hlutdeilldenne, og hiá stadarins hlutdeilld, sem er fimm og tuttugu þusunder mælekopt mót austrenu, og mót vestrenu, þad skal alltsaman vera höfdingians. Enn sú abskilda heilaga hlutdeilldenn, og musterersins helgedómur, skal vera þar midt innann í.

22. Enn hvad sem þar á mille liggur, á millum hlutskiptesins Levitanna, og á millum stadarins hlutskiptis, og á millum landamerkianna Juda, og Benjamins landamerkia, þad skal vera höfdingians.

23. Þar epter skulu vera hinar adrar kynkvíslernar. Benjamin skal hafa sitt hlutskipte frá austrenu, inn til vesturs.

24. Enn Simeon skal hafa sitt hlutskipte næst Benjamins landamerkium, frá austrenu inn til vestursins.

25. Isaschar skal hafa sitt hlutskipte hiá Simeons landamerkium, frá austrenu inn til vestursins.

26. Sabulon skal hafa sitt hlutskipte hiá Isaschars landamerkium frá austrenu inn til vestursins.

27. Gad skal hafa sitt hlutskipte hiá Sabulons landamerkium, frá austrenu inn til vestursins.

28. Enn næst Gad er landamerked mót sudrenu, frá Thamar, inn til þrætuvatnsins í Cades, og ímóte vatnsfallenu, hiá þvi mikla hafenu.

29. So skal landed útskiptast til arfleifdar, á medal Israels kynkvísla. Og þad skal vera þeirra arfleifd, seger Drottinn Drottinn.

30. Og stadurenn skal vera so vidur; fiórar þusunder, og fimm hundrud mælekopt móte nordrenu.

31. Og portinn stadarins skulu kallast epter nöfnum Israels kynkvísla, þriú portenn á mót nordrenu: hid fyrsta ported er Rubens, hid annad Juda, hid þridia Levi.

32. Og so mót austrenu fiórar þusunder, og fimm hundrud mælekopt; og þriú portenn, sem er hid fyrsta ported Josephs, hid annad Benjamins, hid þridia Dans.

33. Mót sudrenu einnenn líka fiórar þusunder og fimm hundrud mælekopt, og þriú portenn, hid fyrsta port Simeons, hid annad Isaschars. hid þridia Sabulons.

34. Og líka so móte vestrenu fiórar þusunder, og fimm hundrud mælekopt, og þriú portenn, þad

eina yrted Gads, hid annad Asers, hid þridia Nephthali.

35. So skal þad hafa átian þusunder mælestlopt allt umkring, og þá skal stadurenn kallast, Her er Drottenn.

Endir prophetans Ezechielis.

# Prophetenn Daniel.

## 1. Capitule.

1. Á þridia áre rikes Joachims, konungsins Juda, kom Nebochodonosor, konungur af Babylon, fyrer Jerusalem, og settest um hana.

2. Og Drottinn gaf Joachim, konunginn Juda, honum í vald, og nockur ker burt úr Guds húse; þau let hann burtflytia í landed Sinear, í síns Guds hús, og lagde þau sömu ker í fehyrdslu síns Guds.

3. Og konongurenn sagde til Aspenas, síns Drottseta, ad hann skyllde útvelia af börnum Israels þau ungmenne, sem væru af konunglegu slekte, og herraborn.

4. Sveinborn þau sem engenn lyte hefdu, helldur þau sem væru mannborleg, skinsöm, hyggenn, klök og skilningsfull, sem hæsielig være ad þiena í kongsins garde, og til ad læra Chaldeska skrift og túngumál.

5. Slíkum tileinkade konungurenn hvad þeim dagleg a gefast skyllde, af sinne fædslu, og af því víne sem hann drack siálfur, ad þau, so um þriu ár uppfostrud skylldu siþann þiena fyrer konungenum,

6. Medal hverra voru þeir, Daniel, Hanania, Misael, og Asaria, af börnum Juda.

7. Og Drottsetinn gaf þeim nøfn, og nefnde Daniel Balthazar, enn Hananiam Sadrach, enn Misael, Misach, og Asaria, AbedNego.

8. Enn Daniel sette ser fyrer í sínu hiarta, ad hann villde eigi saurga sig med konungsins fædslu, og medur því víne sem hann siálfur af drack, og bad Drottsetann, ad hann þyrfte ei ad saurga sig.

9. Og Gud gaf Daniel þad, ad Drottsetenn vard honum nádugur og liknsamur.

10. Sá same sagde til hans: eg hrædest minn Herra konungenn, hver ed ydur hefir tileinkad ydar mat og drick, ef ad hann sæe, þad ad ydrar ásiónur væru aumlegre enn þeirra annara æskumanna, ydara jafnalldra, þá gerdud þer mig liflausann vid konungenn.

11. Þá sagde Daniel til Melzar: þess ed Drottsetenn hafde bitalad þá Daniel, Hanania, Misael, og Asaria.

12. Freista þú þess vid þína þenara í tíu daga.

13. Og lát gefa oss af alldine ad eta, og vatn ad drecka, og skoda þá vorn yferlit, og so þeirra æskumanna sem af konungsins fædslu neyta, og epter því sem þer synest þar epter, þá ger þú vid þína þenara

14. Og hann hlydde þeim í þessu, og freistade þess vidur þá í tíu daga.

15. Og ad lidnum tíu dögum voru þeir vænne og betre álits,

helldur enn aller adrer æskumenn, þeir ed ótu af konungsins fædslu.

16. Þá burttók Melzar þeirra tileinkadann mat og drick, og gaf þeim alldene.

17. Enn Gud þessara fiogra, gaf þeim kunst og skilning í allskyns bækum ritningum og vísdóme. Enn Danieli gaf hann skilning, á øllum sýnum og draumum.

18. Og þá ed sá tíme var umlidenn sem konungurinn hafde tileinkad, ad þeir skylldu innleidder verda, þá innleidde Drottsetenn þá fyrer Nabuchodonosor.

19. Og konungurenn talade vid þá, og þar fannst engenn á medal allra, sem líker være Daniel, Hanania, Misael og Asaria, og þeir urdu konungsins þenarar.

20. Og konungurenn fann þá í øllum þeim greinum sem hann þá adspurde, tíu falt vísare og skilnings meire enn alla adra stiørnumeistara, og vísenda menn, í gervøllu hans ríke.

21. Og Daniel hann lifde allt til hins fyrsta ársins Cyri kongs.

## 2. Capitule.

1. A ødru áre ríkes Nabochodonosors, þá hafde Nabochodonosor einn draum, þar af hann óttadest, so hann vaknade vid.

2. Og hann baud tilsamans ad kalla alla stiørnu meistara, og vitringa, og konstramenn, og Chaldeos, ad þeir segia skylldu konungenum hans draum. Og þeir komu, og gengu fyrer konungenn.

3. Og konungurenn sagde til þeirra: eg hefe haft einn draum, hver mig hefir skelft, og eg villde giarnann fá ad vita, hvada draumur þad være?

4. Þeir Chaldei søgdu þá á Chaldeisku til konungsins: Herra konungur! Gud unne þer langa lífdaga: seg drauminn þinum þennurum, so vilum ver rada hann.

5. Konungurenn svarade og sagde til þeirra Chaldeisku: hann er mer úr minne fallenn. Ef ad þer seged mer ei þennann draum, og ráded hann, eigi þá munud þer forglatast med øllu, og ydar hús skammarlega foreydd verda.

6. Enn ef þer seged mer draumenn, og útþyded hann, þá skulud þer af mer þiggia skeinkingar, giafer, og mikel metord. Þar fyrer þá seged mer draumenn og hans útskiring.

7. Þeir svørudu aptur, og søgdu: konungurenn hann sege sínum þenurum draumenn, þá vilium ver ráda hann.

8. Konungurenn svarade, og sagde: ad sønnu, þá formerke eg, þad þer viled þessu fresta, þvi þer siáed ad hann er mer úr minne lidenn.

9. Enn ef þer seged mer eigi draumenn, þá útgengur sá urskurdur yfer ydur, so sem yfer þá ed fals og lygar hafa tekeð ser fyrer ad tala fyrer mer, þangad til ad tíminn er umlidenn. Þar fyrer þá seged mer draumenn, þá kann eg ad formerkia, þad þer rated einnenn uppá.

10. Þá svørudu þeir Chaldeisku fyrer konungenum, og søgdu til hans: enngenn madur á jardríke er sá, ad segia kunne þad sem konunguren heimter, so er þar og einnenn enngenn konungur, hversu mikell og megtugur sem hann er, sá ed slíks krefe af nockrum stiørnumeistara, vísendamanne, edur Chaldeo.

11. Þviad þad sem konungurenn heimter er forhátt: þar er og enngenn sá sem þad kunne fyrer konungenum ad segia: ad fráskildum Gud-

unum, sem eigi byggia hiá monnum.

12. Þá vard konungurenn afarreidur, og skipade ad láta drepa alla vísendamenn í Babylon.

13. Og sú úrskurdur geck út, ad vísendamennerner skylldu líflátner verda: og epter Daniel, og hans felogum, var leitad, ad menn lífletе þá.

14. Þá formerkte Daniel sodd- ann úrskurd og bifalning, af Arioch þeim ædsta konungsins domara, hver ed út fór til ad aflífa vitringana í Babylon.

15. Og hann hóf upp, og sagde til konungsins foveta Arioch. Hvar fyrer er so hardur ófellis dómur út gengenn af konungenum? og Arioch sagde þad til Daniels.

16. Þá geck Daniel upp, og bad konungenn, at hann gæfe honum frest, so ad hann mætte konungenum segia útskíringuna.

17. Og Daniel geck heim, og kunngerde þetta sínum felogum, Hanania, Misael, og Asaria.

18. Þad þeir bædu Gud af himne um miskun, yfer slíkum leynd um hlut, so þad Daniel og hans felagar tortíndust eigi, medur hinum odrum vísenda monnum.

19. Þá vard Daniele, fyrer eina vitran á náttartele, sodann leyndur hlutur opennberadur. Þar fyrer lofade Daniel Gud af himnum,

20. Hóf upp og sagde: blessad se nafn Guds frá eylífd, ad eylífu! þviad hans er bæde vísdómurenn og stirkleikurenn.

21. Hann skipter um tímana og stundernar: hann afsetur konungana, og innsetur konungana: hann gefir vitringunum vísdóm, og hinum skinsomu þeirra skilning.

22. Hann opennberar hvad diúpt, og folged er: hann veit hvad í myrkrunum liggur, þviad hiá honum er einængis liós.

23. Eg þacka þer, og lofa þig Gud fedra minna! ad þú veiter mer vísdóm og stirkleik, og hefir nú opennberad þad sem ver hofum þig beded, sem er þad, þú gerder konungsins málefne oss opennbert.

24. Þá geck Daniel upp til Arioch, hverum ed konungurenn hafde bifalning gefed ad aflífa vitringana í Babylon, og sagde til hans: eigi skallt þú fyrerfara vitringunum í Babylon, helldur haf mig upp fyrer konungenn; eg vil segia konungenum útskíringuna.

25. Arioch hafde þá Danielem jafnsnart upp fyrer konunginn, og sagde so til hans: þar er einn fundenn á medal þeirra herleiddu af Gydingalande, sá ed segia kann konungenum útskíringuna.

26. Konungurenn svarade, og sagde til Daniels: þann þeir kolludu Balthazar: er þú sá sem kannt ad segia mer draumenn, þann eg hefe sed, og hans útskíring?

27. Daniel hóf upp fyrer konungenum og sagde: sá leyndur hlutur sem konungurenn heimter af þeim vísu, lærdu, stiornumeisturum, og sannsagnar monnum, þad sama er þeim ei mogulegt konungenum ad segia.

28. Helldur Gud af himne, hann kann ad opенbera leynda hlute: hann hefir og kunngert konungenum Nabochodonosor hvad ed ske skal á epterkomande tímum. Þinn draumur og þín vitran, þá ed þú svafst, kom þar af,

29. Þú konungur! hugsader á þinne sæng, hvernenn þad munde seirna meir her epterá tilganga Og sá hinn same sem leynda hlute opennberar, hann hefir kunngert

þer hvernenn þad mun tilganga. So er mer sødbann leyndur hlutur opennberadur.

30. Eigi fyrer mína vitsku, so sem þad være hýn meire enn allra annara þeirra ed lifa, helldur þar fyrer, bad konungenum kunngerd yrde útskíringenn, og ad þú vissir þína hiartans þanka.

31. Þú konungur sást, og siá þú! ad eitt mikid og hátt líkneske stód gegnt þer, þad var ogurlegt álits.

32. Þess sama líkneskis høfud var af hinu besta gulle; þess brióst og armlegger voru af silfre; kvidurenn og lendarnar voru af malme.

33. Fótleggerner voru af járne; þess fætur voru sumanpart járn, enn sumanpart leir.

34. Sodbana sást þú, þangad til ad eitt steinn vard afbrotenn, án handa; sá sló líkneskid á þess fætur, þeir ed járn og leir voru, og ísundurbraut þá.

35. Þá vard tillíka ísundurbroted járned, leirinn, malmurinn, silfred og gullid, og urdu so sem agner í sumarhlødu, og vindurinn feykte þeim burt, so ad menn kunnu hvergi ad finna þad frammveigis. Enn steinnenn, sá ed líknesked sló, vard eitt stórt fiall, so þad hann uppfyllte alla verølldena.

36. Þetta er draumurinn. Nú vilum ver segia hans útskíring fyrer konungenum.

37. Þu konungur! ert einn konungur allra konunga, þeim er Gud af himne hefir gefed ríked, magtena, stirkleikann, og vegsemdina.

38. Og allt þad hvar ed menn búa, þar med villudyrenn á mørkunum, og fuglana under himnenum, hefir hann í þínar hendur gefed, og veitt þer valld yfer øllum hlutum.

39. Þú ert þad gull høfuded. Epter þig mun upp koma eitt annad konungaríke, minne háttar enn þad þitt er. Þar epterá þad þridia konungaríked, sem er af malme, hvert ed drottna mun yfer øllum løndum.

40. Þad fiorda mun hardt verda sem járn, þviad líka sem járned molar og ísundurbrytur alla hlute, já! líka so sem þad, ad járned brytur allt, so mun þad einnenn briota og ísundur mola alla hlute.

41. Enn þad þú hefir sed fæturnar og tærnar, sumanpart leir og sumanpart járn, þad mun vera eitt sundurlaust ríke; þó mun af þeirre járnsins gródursetningu þar inne blífa, so sem þad þú hefir sed járned med leirnum samblandad.

42. Og þad tærnar á þess fótum eru sumanpart járn, og sumanpart leir, þad mun ad nockruleite eitt toflugt, og ad nockru leite, eitt veikt ríki vera.

43. Og þad þú hefir sed járned vid leirenn samblandad, þá munu þeir samteingia sig fyrer mannlegt sæde, enn þó munu þeir eigi hver med ødrum hallda, líka so sem járned lætur eigi samblanda sig vid leirenn.

44 Enn á tímum þeirra konungaríkianna, mun Gud af himne uppbefia eitt konungsríke sem alldrei verdur foreydt, og hans konungsríke mun eigi koma tilneins annars folks. Enn þad mun øll þesse konungaríkenn sundur mola, og eydeleggia, enn þad mun blífa eylífega.

45. Epter þvi sem þú hefir sed, þad steinnenn vard afbrotenn frá fiallenu, án handa, sá ed járned, malmenn, leirenn, silfred, og gulled sundurmolade. Þannen hefir

sá mikle Gud kunngert konungenum, hvernenn þad seirna meir mune tilganga, og þetta er vissulega draumurenn, og útskiringenn er rett

46. Þá fell konongurenn Nabochodonosor framm á sína ásiónu, og tilbad fyrer Daniel, og baud, ad menn skylldu offra honum matoffre, og gera honum reykelsis offur.

47. Og kongurenn andsvarade Daniele, og sagde: Þad er engenn efe á þvi, at ydar Gud er einn Gud yfer ollum Gudum, og einn Herra yfer ollum konungum, hver ed byrta kann leynda hlute, med þvi þú hefir þennann leyndann dom kunnad ad opinbera.

48. Og konungurenn upphóf Danielem, og gaf honum margar og miklar giafer, og sette hann til hofdingia yfer allt landed Babylon, og sette hann til forstiora yfer ollum spekingum í Babylon.

49. Og Daniel bad af konungenum, þad hann mætte setia yfer heradenn í Babylon, þá Sadrach, Mesach, AbedNego, enn siálfur Daniel var hiá konungenum í konungsins garde.

## 3. Capitule.

1. Konungurenn Nabochodonosor let gera eina gullega líkneskiu, sextíu álna háa, og sex álna ad breidd, og let setia hana á einn fagrann flöt í landenu Babylon.

2. Og Nabochodonosor konungur sende epter hofdingium, herrum, landsstiornurum, domurum, fovitum, rádgiafum, og embættismonnum, og ollum magtarmonnum í landenu, ad þeir skylldu tilsamans koma, ad vígia þá líkneskiu, hvora konungurenn Nabochodonosor hafde uppsetia láted.

3. Þá komu hofdingiar, herrar, landstiornarmenn, domarar, fovitar, rádgiafarar, og embættismenn, og aller magtarmenn í landenu, tilsamans, ad vígia þá líkneskiu, sem Nabochodonosor hafde uppsetia láted, og þeir stódu gagnvart líkneskenu, hvert Nabochodonosor hafde setia láted.

4. Og úthrópsrenn kallade miog hátt: láted þad ydur sagt vera, þer folk, lyder og tungumál!

5. Nær ed þer heyred hliod basununnar, herpípunnar, horpunnar, gyunnar, psalltarans, Symphonsens, og allskyns hliodfæra, þá skulud þer framfalla, og tilbidia þá gull líkneskiu sem Nabochodonosor konungur hefir uppsetia láted.

6. Enn hver sem þá eigi frammfellur og tilbidur, sá skal á samre stundu kastadur verda í þann brennande elldsofn!

7. Þá ed þeir heyrdu nú hliod basununnar, herpípunnar, horpunnar, gyunnar, psalltarans, og allsháttadra hliodfæra, fellu framm aller þióder, líder og tungumál, og tilbádu þá gulllíkneskiu, sem Nabochodonosor konungur hafde uppsetia láted.

8. Samstundis gengu framm nockorer menn af Chaldeiskum, og áklogudu Gydingana.

9. Hófu upp og sogdu til konungsins Nabochodonosors: Herra konungur! Gud gefe þer langa lífdaga

10. Þu hefir eitt bod láted útganga; ad aller menn, nær ad þeir heyrdu hliod basununnar, herpípunnar, horpunnar, gyunnar, psalltarans, Symphonsins og allsháttadra hliodfæra, skyllda þeir framm falla og tilbidia þá gulllíkneskiu.

11. Enn hver eigi framm fælle og tilbæde, sá skylde kastadur verda í einn brennanda elldsofn.

12. Nú eru þar menn af Gydingum, hvera þá hefir sett fyrerrádamenn, yfer landed í Babylon, Sadrach, Mesach og Abed Nego, þeir hiner sømu syrerlita þitt bodord, og þyrdka eigi þína Gude, og tilbidia eigi þá gulllíkneskiu, sem þú hefir láted uppsetia.

13. Þá skipade Nabochodonosor, med grimd og reide, ad Sadrach, Mesach og Abed Nego, skyllbu fyrer hann leidder verda. Og þeir menn urdu leidder fyrer kongungenn.

14. Þá hóf Nabogodonosor upp, og sagde til þeirra: hvad ætled þer, Sadrach, Mesach og Abed Nego, ei ad heidra minn Gud, og ei tilbidia þá gull-líkneskiu sem eg hefe upp láted setia?

15. Nu vel! þá vered vidbúner, jafnsnart sem þer heyred hliod basununnar, þerpípunnar, hørpunnar, gyunnar, psalltarens, symphonsins, og allskyns hliodfæra, þá falled framm og tilbided þá líkneskiu, sem eg hefe gera láted. Enn ef þer tilbided hana eigi, þá skulud þer á samre stundu kastader verda í þann bremanda elldsofn. Látum siá, hver sá Gud se, sem ydur mun frelsa af minne hende!

16. Þá upphøfu þeir Sadrach, Mesach, og Abed Nego, og søgdu til konungsins Nabochodonosors: þess gerest eigi þørf, ad ver sverum þer til.

17. Siá þú! þad vor Gud, þann ver heidrum, getur vel frelsad oss af þeim brennanda ofne, þar ad auk einnenn frelsad oss af þinne hende.

18. Og ef hann vill þad eigi gera, þá skallt þú þó samt vita, ad ver heidrum eigi þína gude, og vilium eigi helldur tilbidia þá gull-líkneskin sem þú hefir láted uppsetia.

19. Þá uppfylltest Nabochodonosor af mikellre grimmdarreide, og synde sig ósklanlega bilsann, vidur þá Sadrach, Mesach og Abed Nego, og skipade þad gera skyllde ofnenn sio falt heitara enn þad vanalegt var.

20. Og skipade sínum bestu strídsmønnum, sem voru í hans herlide, ad binda þá Sadrach, Mesach, og Abed Nego, og kasta þeim í þann gloanda elldsofn.

21. So urdu þesser menn, í sínum kyrtlum, skofatam, hofudbúnade, og ødrum klædnade, bundner, og innkastader í þann gloande ofn.

22. Þviad konungsins skipan hlaut sliotlega ad gerast. Og þeir størudu báled í ofnenum so mieg, so þeir menn, sem brenna skylldu þá Sadrach, Mesach og Abed Nego, fórust af elldsloganum.

23. Enn þeir þrír menn, Sadrach, Mesach og Abed Nego fellu nidur í þann gloande ofn, so sem þeir voru bundner.

24. Þá ognade konungenum Nabochodonosor, og hann stock upp skyndelega, og sagde til sinna rádgiafa: høfum ver eigi láted flengia þremur mønnum fiotrudum í elldenn? þeir svørudu konungenum, og søgdu: já, herra konungur!

25. Hann svarade og sagde: eg se þó fiora menn lausa í elldenum ganga, og þeim grandar eigi neitt, og sá hinn fiorde er þvi líkastur, sem være hann sonur gudanna.

26. Og Nabochodonosor geck framm fyrer munnann þess brennanda ofnsins, og sagde: Sadrach, Mesach og Abed Nego! þer þionustumenn hins hæsta Guds, ganged út, og komed hingad! þá geingu

þeir Sadrach, Mesach og Abed Nego, út úr elldenum.

27. Og þeir hafdingiarner, herrarner, lensmennerner, og rádgiafarner Konungsins komu til samans, og sáu, ad elldurenn hafde enga magt audsynt á líkomum þessara manna, og ei svidnudu þeirra höfudhár, og þeirra kyrtlar voru óskiemder, já, og engenn svida þefur var af þeim.

28. Þá hóf Nabochodonoser upp, og sagde: lofadur se Gud Sadrachs, Mesachs og Abed Negos! sem sinn eingel hefir útsendt, og frelsad sína þionustumenn, þá sem honum treystu, og helldu eigi Konungsins bodord, helldur n'ergáfu sína líkama, so ad þeir villdu enganu gud heidra, ne tilbidia, útann alleinasta þeirra eigenn Gud!

29. Þar fyrer þá se þetta mín skipun. Hver af ollu fólke, þiodum og tungumálum sem lastar Gud Sadrachs, Mesachs og Abed Nego, sá skal tortínast, og hans hús skemmelega eydeleggiast, þvi þar er engenn annar Gud, sem so kann ad frelsa sem þessi!

30. Og Konungurenn gaf Sadrach, Mesach og Abed Nego, mikla magt í landenu til Babylonar.

## 4. Capitule.

1. Konungurenn Nabochodonosor, ollum þiodum, fólke og tungumálum. Gud gefe ydur allmikenn frid!

2. Mer líkst þad vel falled, ad eg kunngere þau teikn og stórmerke, sem sá hinn hæste Gud hefir gert vid mig.

3. Þviad hans teikn eru mikel, og hans dádsemdarverk eru máttug, og hans ríke er eylíft ríke, og hans magtarvelld varer um allder og ad eylífu.

4. Eg Nabochodonosor, þá eg hafde goda hvílld í mínu húse, og þad geck allt vel til á mínu slote,

5. Sá eg einn draum, og eg skelfdest, og þær hugsaner sem eg hafde í minne reckiu, yfer þessare sión, sem eg hafde sed, þærstrukludu mig.

6. Og eg skipade, ad aller vísenda menn í Babylon, skylldu hafdeer verda upp fyrer mig, svo ad þeir segdu mer hvad draumurenn hefde ad merkia.

7. Þá hofdu menn stiornumeistarana, vitringana, Chaldeos, og spádómsmenn upp til mín, og eg sagde framm draumenn fyrer þeim, enn þeir kunnu eigi ad segia mer hvad hann merkte.

8. Allt þangad til ad sídurstu, ad Daniel hann kom fyrer mig (sá er kallast Balthazar, epter nafne míns Guds), hver ad hefir anda heilagra guda, og eg sagde framm fyrer honum þann sama draum.

9. Balthazar! þú hinn ædste medal spámannanna, hvern eg veit, ad þú hefir anda heilagra guda, og þad ecke er huled fyrer þer, seg þú synena míns draums, þá ed eg hefe sed, og hvad hun merker!

10. Enn þesse er sú sionenn sem eg hafe sed í minne hvílu.

11. Siá þú! þar stód eitt tre midt í landenu, þad var nærsta hátt, miked, og digurt: þess hæd tók allt upp í himenenn, og þande sig út, allt ad endamerkum alls landsens.

12. Þess greiner voru fagrar, og báru mikenn ávöxt, so þad aller hofdu þar fædslu út af, oll dyrenn í merkenne fundu skugga under þvi, og fuglarner í loptenu sátu á þess kvistum, og allt hollld fædde sig út af þvi.

13. Og eg sá eina syn, á minne

sæng, og sjá þú! einn heilagur vardhalldsmadur for af himnenidr.

14. Hann kallade hárre röddu, og sagde so: høggved tred umkoll, og sníded af þvi greinernar, og rífed af þvi laufblødenn, og sundurdreifed þess ávertum, so ad þaug dyrenn, sem under þvi liggia, burthlaupe, og þeir fuglarner á þess kvistum fliugi burtu þadann.

15. Enn láted þó stofnenn samt blífa, med sínum rótum, í jørdunne. Enn hann skal, í járnvidium og eyrvideum bundenn, í grashøgum ganga; hann skal under døggu himens uti liggia, og votur verda, og skal næra sig medur villudyrum, út af grøsum jardarenner.

16. Og mannlegt hiarta skal burt fra hønum teked verda, og fenadar hiarta hønum gefast, þangad til ad siø tíder eru yfer hønum lidnar.

17. Soddann er í ráde vardhallds-mannanna órskurdad, og í samrædum heilagra ályktad, so þad hiner lifendu kannest þar vid, ad hinn hæste hefe magt yfer mannanna konungaríkinu, og gefe þaug hverium ed hann vill, og uppheft þá audvirdlegu til þeirra hinna sømu.

18. Slíkann draum hefe eg konungur Nabochodonosor sed. Enn þú Balthazar! seg hvad hann merker. Þviad aller vísendamenn í mínu ríke kunna eigi ad segia mer hvad hann merker. Enn þú kannt þad vel, þviad ande heilagra guda er med þer.

19. Þá skelfdest Daniel, hver annars heiter Balthazar, so nær um stund, og hans hugsaner briggdu hann. Enn konungurenn sagde: Balthazar! lát eigi draumenn, ne hans útþýding skurla þig. Balthazar hóf upp, og sagde: ach minn herra! þann draumenn ættu fiender þínir, og hans útþýding þíner mótstødumenn!

20. Þad tred sem þú hefer sed, þad so miked og digurt var, þess hæd tók allt upp í himeninn, og þad útbreidde sig yfer allt landed.

21. Og þess greiner voru vænar, og þess ávexter mikler, þar ed aller hluter høfdu fædu út af, og dyrenn á mørkenne biuggu under því, og fuglar himensins sátu á þess kvistum.

22. Þad sama ert þú konungur, þú sem so mikell og máttugur ert, þviad þín magt er mikel, og tekur allt í himenenn, og þitt valld nær allt út til heimsins enda.

23. Enn þad konungurinn hefir sed einn heilagann vardhalldsmann af himne nidur fara, og segia: høggved tred umkoll, og fordiarfed þad! enn láted þo stofnenn, medur sínum rótum, blífva í jørdunne. Enn hann skall í járnvidium og eyrvidium bundenn, í grashøgum ganga, og under døggu himens liggia, og votur verda, og med villudyrum í úthøgum ala sig, þangad til ad siø tíder eru umlidnar yfer hønum.

24. Þetta er þýdingenn, herra konungur! og soddann rád hins hæsta geingur yfer herra konungenn.

25. Þeir munu burtreka þig fra mønnum, og þú hlytur hiá villudyrum í úthøgum ad vera, og þeir munu þig gras bíta láta sem naut, og þú munt under døggu himens liggia, og votur verda, þangad til ad siø tíder eru yfer þer umlidner. So ad þú medkenner, þad sá hinn hæste hafe magt yfer konungaríkium mannanna, og gefe þau hverium ed hann vill.

26. Enn þad sagt er, ad þeir

skylldu þö láta blifa stofnen treꝛ fins, med sínum rótum, það er; þitt konungsríke skal þitt blífva, þá ed þú hefir kannast vid þá magt sem er á himnum.

27. Þar fyrer, herra konungur! lát þer mitt ráð vel þocknast, og ger þig lausann af þínum syndum, medur rettvíse, og kvitta þig af þínum misvertum, medur góð gerðum vidur fátæka, þá mun hann líða þínar synder við þig.

28. Allt þetta kom yfer konginn Nabochodonosor.

29. Því ad tolf mánuðum lidnum, þá ed konungurinn geck í sínu konglegu slote í Babylon,

30. Hóf hann upp, og sagde: Þetta er sú hin mikla Babylon! hveria eg hefe uppbiggt út af mikelldre magt, til konungligra herꝛ bergia, til heidurs vid minn herraꝛ dóm!

31. Fyrr enn það konungurenn hafde þeað ord ut talað, fell raust af himne ofann: Þer Nabochodonosor konungur verdur sagt! þitt kongsríke skal burt fra þer takast!

32. Og þú munt burturekenn verda fra ødrum mønnum, og medur dyrum, sem ganga á morkenne, skallt þú vera: gras munu menn láta þig eta, sem annad naut, þangad til ad sio tider eru umlidnar yfer þer. So ad þá medkenner það, ad sá hinn hæsti hafe magt yfer konungaríkium mannanna, og gefe þau hverium ed hann vill!

33. Á samre stundu vard það ord fullkomnað yfer Nabochodonosor, og hann vard burtrekenn frá mønnum, og beit gras, sem naut, og hans líkame lá under døggu himens, og vard votur, þangad til að hans hár voxso mikið sem arnarꝛ fiadrer, og hans neglur urdu sem fuglaklær.

34. Ad lidnum þessum tíma, hóf eg Nabochodonosor mín augu upp til himens, og kom til skinsemdar aptur, og eg sagde lof hinum hæsta, og prísade og heidrade þann semm lifer eylíflega, hvers magtꝛ arvellde það evlíft er, og hans ríke varer um allder og ad eylífu.

35. Í hiá hverium ed aller, þeir er á jørdu byggia, eru so sem eigi neitt reiknande. Hann gerer so sem hann vill, bæde vidur krapta himensins, og vidur þá er á jørdu búa, og eingenn er sá ed hans hønd fann ad hindra, ne til hans sá sagt: hvad gerer þu?

36. Á þeim sama tíma kom eg aptur til skinsemdar, so komst eg og einnenn aptur til minnar konungꝛ legrar vegsemdar, til minnar dyrdꝛ ar, og til minna yferlita, og míner rádgiafar og villdarmenn leitudu mín, og eg vard ínnsettur í mitt konungsríke, og mer tilløgdust þá enn miklu meire virdingar.

37. Þar fyrer lofa eg Nabochoꝛ donosor, og heidra, og dyrdka þann himna konungenn, hvíað allꝛ ar hans gerder eru sannleikur, og hans veiger eru retter, og þann ed dramblátur er, kann hann ad lítelꝛ læcka.

## 5. Capitule.

1. Balthazar konungur gerde eitt herralegt gestabod sínum magtarꝛ mønnum, og høfudsmønnum, og drack sig druckenn medur þeim.

2. Og þá ed hann var druckenn ordenn, skipade hann ad sækia þau gullkerenn, og silfurkerenn, sem hans fader Nabochodonosor hafde teked úr musterenu til Jerusalem, so ad konungurenn, med sínum villdarmønnum, med sínum kvinnꝛ um, og med sínum frillum dricke þar út af.

3. Þá urdu þau gullkerenn frammborenn, sem ur musterenu, út af þvi guds húse til Jerusalem, voru burt tekenn, og konungurenn, hans villdarmenn, hans kvinnur, og frillur drucku þar út af.

4. Og þá ed þeir drucku so, lofudu þeir þá Gudena sem voru gull, silfur, eyr, járn, stockar og steinar.

5. Rett á þeirre somu stundu gengu framm fingur, so sem manns hond, þeir ed skrifudu gegnt liósa stikunne, á þeim forfágada veggnum í kongshollenne. Og konungurenn vard var vid hondena sem skrifadi.

6. Þá tók konungurenn litaskipte, og hans þankar skelfdu hann, so ad hans lendar skulfu, og fótleggerner titrudu.

7. Og konungurenn kallade miog ofur hátt, ad þeir innleiddu fyrer hann vitringana, þá Chaldeos, og spásagnarmenn. Og let segia vitringunum í Babylon: hver madur sem les þessa skrift, og kann ad segia hvad hún merker, sá skal medur purpura klædbur verda, og gullfeste á hálse bera, og hinn þridi Herra í minu kongsrike vera.

8. Þá urdu aller vísendamenn konungsins upp hafder, enn þeir kunnu hverke skriftena ad lesa, ne útþydinguna kongenum ad segia.

9 Hvar af þad konungurenn Balthazar skelfdest enn miklu meir, og miste med ollu sitt yferbragd, og hans villdarmonnum fell þad þungt.

10. Þá geck drottningenn, vegna þvilikra konungsins málésna, og hans villdarmanna upp í salenn, og sagde: Herra konungur! Gud gefe þer langa lífdaga! lát þú ei þína hugsan so skelfa þig, og um skipt ei so þinum yferlitum!

11. Þar er einn madur í þinu konungsrike, sá ed hefir anda heilagra Guda, þvíad á dogum fodur þíns fannst í hiá honum upplýsing, speke og vísdomur, so sem Gudanna vísdomur er. Og þinn fader, Nabochodonosor konungur, sette hann yfer stiornumeistarana, vitringana, Chaldeos, og spásagnarmennena.

12. Af þvi þar fannst einn ædre ande med honum, þar ad auk vísdomur og skilningur drauma út ad skíra, og myrkar sagner ad ráda, og hulenn málesne ad openbera, sem er Daniel, hvern ed kongurenn let kalla Balthazar. Þar fyrer kalle menn nú Daniel, hann mun segia hvad þetta merker.

13. Þá vard Daniel uppleiddur fyrer konungenn. Og konungurenn sagde til Daniels: er þú sá same Daniel, einn af þeim herleiddu af Juda, hvern ed konungurenn, fader minn, hefir hingad haft af Juda?

14. Eg hefe heyrt sagt af þer, þad þú hafer anda heilagra Guda, og uppbyrting, skilningur, og diupur vísdomur se hiá þer fundenn.

15. Nú hefe eg láted kalla fyrer mig spekinga, og vísendamenn, þad þeir læsu mer þessa skrift, og skylldu segia hvad hún merkte, og þeir kunna eigi ad segia mer hvad soddan merker.

16. Enn af þer heyre eg, þad þú muner kunna útskíringuna ad greina, og þad huled er ad openbera. Ef ad þú kannt nú ad lesa skriftena, og segia mer hvad hún merker, þá skalt þú med purpura klædbur verda, og gullfeste á þínum hálse bera, og sá hinn þridi Herra vera í minu konungsrike.

17. Þá hóf Daniel upp, og sagde fyrer konungenum: halld þú siálfur þínum gáfum, og gef þínar gáfur

einhverium ødrum! enn þó vil eg þessa skrift lesa fyrer konungenum, og segia hvad hún merker.

18 Herra konungur! Gud sá hinn hæsste hefir gefed sínum fodur Nabochodonosor konunglegtríke, magt heidur og herradóm.

19. Og fyrer þeirrar sömu magtar saker, sem honum var gefenn, hræddust hann og forduduſt allar þiódir, fólk og tungumál. Hann aflífade hvern hann villde; hann sló hvern hann villde; hann upphafde hvern hann villde; hann lítillætte hvern hann villde.

20. Enn þá hans hiarta upphóf sig, og hann tók stolltur og drambsátur ad verda, vard hann affettur þeim konunglega stóle, og vard sínum heidre svíptur.

21. Og vard burtrekenn frá mønnum, og hans hiarta vard líka sem dyranna, og hlaut í hiá villudyrum ad hlaupa, og át gras sem naut, og hans líkame sá under døggu himens, og vard votur. Allt þangad til ad hann lærde, ad sá hinn hæsste Gud hafe magt yfer mannanna konungarríkium, og gefe þau hverium ed hann vill.

22. Og þú Balthazar, hans sonur! hefir eigi lítillætt þitt hiarta, þó ad þú vissir alltsaman þetta.

23. Helldur hefir þú upphafed þig imóte himnadrottnenum. Og kerenn úr hans húse hlutu menn ad bera fyrer þig, og þú, þíner vildar menn, þínar kvinnur, og þínar frillur hafa drucked þar af; þar ad auk heidrad þá afgude sem eru silfur, gull, eyr, járn, tre og steinar, þeir ed hverke siá ne heyra, ne til finna: enn þann sama Gud sem þinn andardrátt, og alla þína vegu hefir í sinne hende, þá hefir þú eigi dyrkad.

24. Þar fyrer er þesse hønd frá honum útsend, og þesse skrift, sem þar stendur, uppteiknud.

25. Enn þesse er skriftenn, sem þar stendur uppteiknud: mene, mene, tekel, upharsin.

26. Og hún merker þetta: mene, þad er, Gud hefir þitt ríke taled og útendad.

27. Tekel, þad er, þeir hafa þig á vog veiged, og fundist til lettvægann funded.

28. Peres, þad er, þitt ríke er ísundurskipt, og þeim Medis og Persis gefed.

29. Þá skipade Balthazar, þad Daniel skyllde klæda med purpura, og láta gullfeste hønum á háls, og let útberest af hønum, þad hann være hinn þridi Herra í kongsríkenu.

30. Enn á þeirre sømu nóttu vard Balthazar, konungur þeirra Chaldeiska, ihelsleigenn.

## 6. Capitule.

1. Og Darius út af Media tók ríked ad ser, þá ed hann hafde tvo vetur um sextugt.

2. Og Dario leist þad vel falled, ad hann sette, yfer allt konungsríked, hundrad og tuttugu landsfoveta.

3. Enn yfer þessa sette hann þriá høfdingia: einn af þeim var Daniel, hverium þed landsfovetarner skylldu reikningskap gera, so þad konungurenn hefde þar eigi þvingan af.

4. Enn Daniel bar af øllum høfdingium, og landsfovetum, þviad einn ædre ande var med hønum; þar fyrer þá hugde konungurenn ad setia hann yfer allt kongsríked.

5. Hvar fyrer þad høfdingiarner og landsfovetarner stundudu þar epter, hvernenn þeir gætu fenged nockora søk til Daniels, sem konungsríkenu være á móte. Enn

Þeir gátu enga sök ne illgerd sundeð, Þvíað hann var trúr, so þad engenn sök ne misgerd kunne ad finnast medur honum.

6. Þá sögðu þeir hiner sömu menn: ver munum enga sök finna Daniele, utann í hans Guðsdyrðkan.

7. Þá komu höfdingiarner, og landsfovetarner aller tilsamans, fyrer konungenn, og sögdu so til hans: Herra Darius konongur! Gud gefe þer langa lífdaga!

8. Höfdingiarner ríkisins, herrarner, landsfovetarner, rádgiafar, og aller höfudsmenn hafa uppþeinkt, þad ein konungleg skipan skylde útganga, og eitt streingelegt bod gerast, ad hver hann í þriátíu daga bidur eins hvers af nockorum Gude, edur manne, utan af þer konongur! einum saman, þá skule sá kastadur verda í gröfena til Leoanna.

9. Þar fyrer, kære kongur! skalt þú stadfesta soddann bod, og skrifa þar under, so ad þar verde eigi umbreitt aptur, epter lögmále þeirra af Meden og Persia, hvert þad engenn þorer ad ysertroda.

10. So underskrifade konungurenn Darius þessa bod.

11. Enn sem Daniel fornam nú, þad soddann bifalning var underskrifud, geck hann upp í sitt hús, (enn hann hafde í sínu sumarhúse eitt oped vindauga, imóte Jerusalem) og hann feil á sín kne, þrisvarsinnum á deigenum, badst fyrer, lofade og þackade sínum Gude, so sem hann var ádur vanur ad gerä.

12. Þá komu þesser menn í hóp tilsamans, og fundu Danielem liggiande á bæn, og bidiande, og grátbænande fyrer Gude sínum.

13. Og þeir gengu þangad, og töludu vid konungenn um þad konungsins bod: Herra konungur! hefir þú ei eitt bod underskrifad, ad hver hann í þriátíu daga bæde einshvers hlutar af nockorum Gude, eda manne, utan af ydur konunginum einumsömum, þá skylde sá í Leona gröfena kastadur verda? konungurenn suarade og sagde: sannende eru þad, og lög þeirra í Media og Persia skal engenn ysertroda.

14. Þeir svörudu og sögdu fyrer konongenum: Daniel, af þeim hertekn u af Juda, skeyter hverke um þig, ne þitt bod, þad þú hefir uppteiknad, þvíað hann bidst fyrer þrisvarsinnum á deige.

15. Þá kongurenn heyrde þad, vard hann miög hriggur vid, og hafde þar stora ástundan á, ad hann feinge frelsad Danielem, og hafde þar miked ómak fyrer, allt til þess ad sólenn var undergengenn, ad hann frelsade hann.

16. Enn þeir sömu menn komu í einum hóp til konúngsins, og sögdu til hans: þú veitst, Herra konongur! ad þad er lögmál í Media og Persia, ad öll þau bod og bifalningar sem konungurenn siálfur hefir ályktad, skule vera óumbreyteleg.

17. Þá skipade konungurenn ad leida framm Danielem, og kasta honum í gröfena til Leonanna. Enn konungurenn sagde til Daniels: þinn Gud, sem þú þiónar én aflats, hann hiálpe þer.

18. Og þeir sóktu einn stein, þann lögdu þeir yfer munnann grafarennar. Þann hinn sama innsiglade konungurenn med sínum eigenn hring, og medur hringum sinna villdarmanna, so þad eingenn gerde Daniele neitt til vonda.

19. Og kongurenn geck burt þadann til síns slots, og neytte einskis,

og let engann mat fyrer sig bera, gat og eigi helldur sofed.

20. Um morguninn snemma, þeg-ar dagade, stod konungurenn upp, og geck med flyte burt til grafar-innar, þar ed Leonenn inne voru.

21. Og sem hann kom ad graf-enne, kallade hann á Daniel, med sorglegum hliodum. Og konungur-enn sagde til Daniels: Daniel! þu þiónustumadur hins lifanda Guds! hefir eiginn þinn Gud, hvörium þu þiónar án aflats, kunnad ad frelsa þig frá Leonunum?

22. Enn Daniel talade vid kon-ungenn: Herra konungur! Gud ge-fe þer langa lífdaga!

23. Minn Gud hefir sendt sinn engel, hver ed Leonanna kiefkum hefir tilsamans hallded, so ad þau hafa ecke meiga mer gert, þvíad fyr-er honum em eg saklaus fundenn, so hefe eg og eigi heitt á móte þer gert, Herra konungur!

24. Þá gladdest konungurenn mios og skipade ad draga Danielem út aptur af grøfenne. Og þeir dróu Daniel burt úr grøfenne, og þar fanst ecke sár á honum, þvíad hann hafde treyst sínum Gude.

25. Þo skipade konungurenn ad frammleida þá menn, sem áklagad høfdu Danielem, og ad kasta þeim í grøfena til Leonanna, medur þeir-ra konum og børnum. Og fyrr enn þeir komust nidur á botnenn, gri-pu Leonenn þá, og sundur muldu einnenn þeirra bein.

26. Þá let konungurenn Darius øllum þiódum, fólke og tungumál-um tilskrifa: Gud gefe ydur mik-enn frid!

27. Þad er mín skipan, þad í allre velldisstiórnan míns ríkes, þá skulu menn óttast og hrædast Guð Danielis. Þvíad hann er sá lif-andе Gud, sem er eylífliga, og hans ríke er óforgengelegt, og hans velldisstiornan hefir enganri enda.

28. Hann er einn frelsare og naudhiálpare, og hann gérer tákn og stormerke, bæde á himnum og á jørdu, hann hefir frelsad Danielem frá Leonunum.

29. Og Daniel vard volldugur í konungsríke Darii, og í kongs-ríke Cyri af Persia.

## 7. Capitule.

1. Á fyrsta áre Balthazar, konungs-ins í Babylon, hafde Daniel einn draum og syn, á sæng sinne, og hann skrifade þann draum, og sam-setie hann med þessum hætti.

2. Eg Daniel sá eina syn á nátt-artíma: og siá þu! þad siorer vind-ar under himnenum stormudu hver á móte ødrum, á þvi hinu mikla siáfarhafenu.

3. Og fiogur dyr mikel stigu upp úr siónum, hvert ødru ól kt.

4. Hid fyrsta líka sem Leon, og hafde vænge sem ørn. Eg horfde á, þangad til ed vængerner af þvi urdu burtplockader, og þad vard burtlefed af jørdu, og þad stéd upp á sínar fætur, líka sem madur, og þvi vard eitt manns hiarta gefed.

5. Og siá þu! þad annad dyred þar nærst var líkt einu biarndyre, og þad stéd ødrumeiginn, og hafde í sínum munne, medal sinna tan-na, þriár stórar og langar tennur, og til þess hins sama vard so sagt: statt upp, og et miked kiøt!

6. Epter þetta sá eg, og siá þu! eitt annad dyr, líkt einum Pardus, þad hafde á sínu bake fiora vænge, líka sem fugl, og þad sama dyred hafde fiogur høfud, og þvi vard valld gefed.

7. Epter þetta sá eg í þessare syn á náttartíma, og siá þu! þad fiorda dyred var øgurlegt og hræ-

belegt, og miøg sterkt, og hafde stórar járntennur átt ikringum sig, og ísundur molade, og þad hvad afgangs var; þá sie þad ísundur med sínum fótum, þad sama var og miøg ólíkt hinum ødrum, og hafde tíu horn.

8. Enn þá eg leit þau hornenn, siá þú! þá vox upp á mille þeirra hinna sømu eitt annad líted horn, fyrer hveru þad hin fremstu horn enn þriu urdu afbrotenn. Og siá þú! þad sama horn hafde augu líka sem manns augu, og munn þann ed talade mikla hlute.

9. Soddann sá eg, þangad til ad þar urdu stólar setter, og hinn gamle seitist nidur, hvers klæde var hvitt sem snjór, og hans høfuds hár so sem táhrein ull, og hans stóll var einn elldsloge, og hiólenn þess hins sama brunnu med ellde.

10. Og af þess sama auglite geck út einn langur gloandi geisle. Þusund sinnum þusund þiónudu hønum, og tíu sinnum hundrad þusunder stódu framme fyrer hønum. Dómurenn vard halldenn, og bækurnar urdu upplokuar.

11. Eg skygndest ad, vegna þeirra stóru orda, sem þad horned talade. Eg skygndest ad, allt þangad til ad dyred vard íhelsleiged, og þess líkame fyrerforst, og vard í elld kastadur.

12. Og magtenn þeirra annara dyranna vard einnenn útgerd. Þvi ad þeim var tíme og stund tileink ud, hversu lenge þad serhvert þeirra skyllde vara.

13. Eg sá í þessare nætursyn, og siá þú! ad þar kom einn í skyum himens, líka sem mannsens sonur, þangad til hins gamla, og var hafdur fyrer hann.

14. Hann gaf hønum magt, heidur, og ríke, so þad hønum skyllde þióna allt folk, þióder og tungumál, hans valld er eylíft, hvert ad eigi forgengur, og hans kongsríke, hefir enganenda.

15. Eg Daniel óttadest af þessu, og soddann sióner þær skelfdu mig.

16. Og eg geck til eins þeirra sem þar stódu, og bad hann, þad hann segde mer sanna skíring á þessu ollu. Og hann talade vid mig, og segde mer frá hvad þad merkte.

17. Þesse siogur hin miklu dyrenn eru fiorer konungar sem uppmunu koma á jørdu.

18. Enn heilager hins hæsta munu ríked under sig leggia, og eignast þad um allder og ad eylífu.

19. Þar eptir villde eg giarnann hafa vitad sanna vissu út af þvi fiorda dyrenu, hvert ed var allt øðruvís enn øll hin ønnur, miøg ogurlegt, þad er hafde járntennur, og eyrklaufer, þad át ikringum sig og ísundurmolade, og hitt, hvad afgangs var, sie þad ísundur med sínum fótum.

20. Og af þeim tíu hornum á þess høfde, og af þvi odru sem þar vox upp, fyrer hveriu þriu affellu, og af þvi sama hornenu sem augunn hafde, og þann munnenn sem mikla hluti talade, og þad var stærra enn þau sem hiá þvi voru.

21. Og eg sá þad sama horn beriast ímóte heiløgum, og hafde sigur ímóte þeim.

22. Þangad til sá hinn Gamle kom, og hellt dóm fyrer þá Heiløgu hins hæsta, og sá tíme kom, þad hiner Heiløgu tóku ríked under sig.

23. Hann segde so: þad fiorda dyred mun vera þad fiorda ríked á jørdu, hvert megtugra mun verda enn øll ríkean, þad sama mun øll

lønd svelgia, under troda, og sundur meria.

24. Enn þaug tíu hornenn merkia tíu konunga, sem út af þvi sama ríke munu uppkoma. Enn epter þá hinu somu, mun einn annar uppkoma, og sá mun megtugre verda enn nockur af þeim fyrrum, og hann mun þriá konunga under þricka.

25. Hann mun tala gudlastan á móte hinum hæsta, og foreyda heilogum hins hæsta; og mun takast á hendur ad umbreyta tímum og lagasetningum. Enn þeir munu í hans hendur gefner verda um einn tíma, og nockra tíma, og einn hálfann tíma.

26. Þar epterá mun dómurenn halldenn verda: þá mun hans magt burtutekenn verda, so þad hann nidur í grunn afmádur og forglatadur verde.

27. Enn ríked, valldeð og magtenn under ollum himne mun þvi heilogu fólke hins hæsta gefenn verda, hvers ríke ad eyliſt er, og allt valld mun honum þiona og hlyda.

28. Þetta var ender rædunnar, Enn eg Daniel hriggdest miog í mínum þenckum, og minn yferlitur umskipteſt: þó hellt eg þessare rædu í mínu hiarta.

## 8. Capitule.

1. Á þridia áre ríkis Balthazar konungs, birtest mer Daniele ein sión, epter þvi sem mer birtist í fyrstu.

2. Enn eg var, þá eg soddann sión sá í slotenu Susan, í landenu Elam, vid vatned Ulai.

3. Og eg lypte mínum augum upp og sá, og siá þú! ad einn hrútur stód fram vid vatned, hann hafde tvo há horn, þad annad var þo ødru hærra, og þad hid hærra vox um síd er.

4. Eg sá þad hruturenn stangade med hornunum, imót vestrenu, imót nordrenu, og imót sudrenu, og eingen dyr kunnu fyrer honum ad standa, ne út af hans hende ad frelsast, helldur hafdest hann ad, hvad hann villde, og vard mikell.

5. Og sem eg hugleidde ad þessu, siá þú! þá kom einn kiarnhafur úr vestrenu, yfer alla jordena: so þad hann snart ei jordena, og sá same kiarnhafurenn hafde eitt álitlegt horn, á millum sinna augna.

6. Og hann kom allt ad hrútnum, sem tvo hornenn hafde, hvern eg sá standa fram vid vatned, og hann hlióp í reide sinne hardlega ad honum.

7. Og eg sá til hans, þá hann kom alla leid ad hrútnum, og olmadest miog vid hann, og stangade hrútinn, og ísundur molade tvo hans horn. Og hrúturinn hafde eingann krapt, þad hann gæte stadest fyrer honum, helldur fleygde hann honum til jardar, og trad hann under, og eingenn kunne hrútenn ad frelsa af hans hende.

8. Og sá kiarnhafurenn vard næsta mikell: og þá ed hann var sem sterkastur orden, ísundur brotnade þad mikla horned, og í stadenn þeis uxu upp fiøgur álitleg, ímóte þeim fiorum vindum himensins.

9. Og út af einu þvi enu sama, vox upp eitt líted horn, þad vox næsta miked, mót sudrenu, mót austrenu, og imóte þvi verduga lande.

10. Og þad vox allt til þess himnesta hersins, og niður sló þar nockra af, og af þeim stiørnunum, til jardar, og trad þær under.

11. Já, þad sama vox allt til hofdingia þess hersins, og tók burt

frá honum það daglega offred, og foreydde bygd hans helgedóms.

12. Enn honum vard sú magt gefenn, móte því daglega offrenu, fyrer syndanna saker, ad hann sannleikann nidur ad velle lagde, og hvad hann gerde, það luckadest honum.

11. Enn eg heyrde einn heilagann segia, og sá hinn same heilage mællte til eins þeirra, sem þar talade: Hversu leinge skal þó soddan syn, af daglegu offre, og af syndenne, vara, vegna hverrar það þesse foreyding sker, so það bæde helgedómurenn og herinn nidur trodlann verde?

14. Og hann svarade mer: Það eru tvo þúsund og þriu hundrud dagar, fra kvøllde til morguns ad reikna, þá mun helgedómurenn vígdur verda ad nyu.

15. Og þá eg Daniel sá soddann syn, og giarnann villde hana skilid hafa, siá þú! þá stód fyrer frammann mig, lika sem anner madur.

16. Og eg heyrde eins manns raust á millum ulai, sá kallade og sagde: Gabriel! útlegg þú þessum synena, so ad hann skile hana.

17. Og hann kom þar alla leid ad mer. Enn eg vard óttasleigenn, þá ed hann kom, og fell framm á mína ásiónu. Enn hann sagde til mín: gef gaum ad, þú mannsins sonur! þviad þesse syn heyrer til endingarinnar tíma.

18. Og þá hann talade vid mig, leid eg nidur í aungvit til jardar, framm á mína ásiónu. Enn hann tók til mín, og reiste mig upp, so ad eg stód.

19. Og hann sagde: siá þú! eg vil kunngera þer, hvernenn það mune tilganga á tímum hinnar sídurstu reide, þviad endenn hefir sinn tileinkadann tíma.

20. Sá hrúturenn med þeim tveimur hornum, sem þú hefir sed, það eru þeir konungar í Media og Persia.

21. Enn sá kiarnhafurenn er konungurinn í Grícklande. Það hid mikla hornid, á millum hans augna, er sá hinn fyrste konungur.

22. Enn þar ed fiogur stódu í þess stad, þá það var afbrotid, það merker, ad fiogur kongaríke munu uppkoma af þeirre þiód, enn þó eigi svo megtug sem hann var.

23. Epter þesse kongaríkenn, nær yfertródslu menneinner hafa yfer hønd, þá mun uppkoma einn illgiarn og hreckvís konungur.

24. Sá mun megtugur vere, þó eigi fyrer sinn krapt, hann mun med undarlegum hætte foreyda, og það sama mun honum luckast, ad hann fáe því so til vegar komed. Hann mun hina øflugu, ásamt med því heilaga fólke, vid velle leggia.

25. Og fyrer sína kænsku mun honum það svikræde takast. Og hann mun metnast í sínu hiarta, og fyrer velgeingne mun hann marga fordiarfa, og mun setia sig upp imóte þeim høfdingianum allra høfdingia, enn hann mun án handa í sundurlamenn verda.

26. Sú synenn af aftnenum og morgnenum, sem þer er sagd, hún er sønn; enn þú skallt bivara þá syn heimuglega, þviad það er enn einn langur tíme þangad til.

27. Og eg Daniel vard veikur, og lá siúkur nockra daga. Þar epterá stód eg upp, og starfade í konungsins erindum, og mig furdade þesse syn, og þar var sá engenn, ed útlegde hana fyrer mer.

## 9. Capitule.

1. Á fyrsta áre Darii, sonar Ass-

veri, af slekte þeirra í Meden, hver ed kongur vard yfer ríkium þeirra Chaldeisku.

2. A þvi sama fyrsta árenu hans ríkisstiornar, hugde eg Daniel ad, í bokunum, ad þeirri aratølu, sem Drottinn hafde talad til prophetans Jeremia, þad Jerusalem skyllde siøtíu ár í eyde liggia.

3. Og eg snere mer til Drottins míns Guds, ad bidia hann, og grátbæna, medur føstum í seck og øsku.

4. Enn eg bad til Drottins míns Guds, vidurkennde, og sagde: ó Drottinn! Þú hinn mikle og hinn hrædelege Gud, halldande sátt málann og miskunseme vidur þá sem þig elska, og þín bodord vardveita!

5. Ver høfum syndgast, og gert órett: ver høfum vered ógudleger, og falled frá þer: ver høfum burtviked af þínum bodordum og rette.

6. Ver hlyddum eigi þínum þenurum, spámønnunum, þeir ed í þínu nafne predikudu verum kongungum, høfdingium, fedrum, og øllu fólke í landenu.

7. Þú Drottinn! ert rettlátur, enn ver meigum skammast vor, so sem ad nú gengur þad þeim af Juda og í Jerusalem, og øllum Israel, bæde þeim sem nærre og fiærre eru, í øllum løndum, þangad ed þú hefir burtrekid þá, fyrer þeirra misgerninga saker, sem þeir høfdu á móte þer broted.

8. Iá, Drottinn! ver siálfer, vorer kongongar og høfdingiar, og vorer fedur, hliotum nú ad skammast vor, fyrer þad, ad ver høfum á móte þer broted.

9. Enn þín, Drottinn vor Gud! er miskunseminn, og fyrergefningenn. Þviad ver erum ordner fráfallner,

10. Og hlyddum eigi raustu Drottins Guds vors, so þad ver gengum í hans løgmále, hvert ed hann lagde fyrer oss, fyrer sína þenara spámennena.

11. Helldur allt Israels fólk yfertrad þitt løgmál, og vek þar frá, so ad þad hlydde eigi þinne raustu. Þar fyrer kemur einnenn yfer oss sú bølvan, og eydur, sem skrifadur stendur í løgmále Mosis, Guds þiónustumanns, ad ver høfum syndgast á móte hønum.

12. Og þau sín ord hefir hann halldeð, sem hann hefir talad imóte oss, og vorum dómurum, þeir ed oss áttu ad dæma, þad hann hefir so mikla ógæsu yfer oss koma láted, þad hennar líke er eigi skedur under øllum himne, so sem þad sked er yfer Jerusalem.

13. Eins líka so sem ad þad skrifad stendur í Moyses løgmále, líka so er øll þesse hin mikla ógæfa yfer oss komenn. So tilbidium ver og eigi einnenn Drottinn vorn Gud, so þad ver snerunst frá vorum syndum, og skildum þinn sannleika.

14. Þar fyrer hefir Drottinn einnenn vakande vered medur þessa ógæfu, og láted hana yfer oss ganga. Þviad Drottinn vor Gud er rettlátur í øllum sínum verkum þeim ed hann gerer, af þvi ver hlyddum eigi hans raustu.

15. Og nú Drottinn Gud vor! þú sem útleiddder þitt folk af Egyptalande med øflugre hende, og gerder þer eitt nafn, epter þvi sem ad nú er þad, ver høfum syndgast, og høfum, þess verr! vered ógudleger.

16. Æ Drottinn! vegna alls þíns rettlætis, snú þú burt þinne reide og grimd frá þinne borg Jerusalem, og hinu hinu heiløgu fialle! þviad vegna vorra synda og

fyrer misgerninga saker fedra vorra, ber Jerusalem, og þitt fólk, smán hiá øllum þeim sem her í kringum eru.

17. Og nú, Gud vor! heyr þú bæn þíns þenara, og hans ákallan, og álít þú mildvelega þinn helgedom sem foreyddur er, fyrer saker Drottins.

18. Hneig þú þín eyru, minn Gud! og heyr þú! uppluk þínum augum, og sia þú! hversu þad ver erum i eyde lagder, og sú borgenn, sem epter þinu nafne er kølluð. Þviad ver liggium fyrer þer med voru bænaákalle, eigi uppá vort rettlæte, helldur uppá þina storu miskunsemd.

19. Æ Drottinn, heyr þú! æ Drottinn! ver þú miskunsamur. Æ Drottinn! hygg ad, og ger þad, og drag þad eigi undann, þíns siálfs vegna, minn Gud! þviad þin borg, og þitt folk er nefnt epter þinu nafne.

20. Enn þá eg enn nú so talade, og badst fyrer, og vidurkennde minar synder, og mins folks Jsraels, og lá med bæn minne fyrer Drottne Gude minum, vegna þess hins heilaga fiallsins mins Guds.

21. Under eins sem eg so talade í minne bæn, þá flaug sá madur Gabriel þangad, hvern ad eg hafde ádur í syn sed, og hann áhrærde mig um tima kvølldoffursins. Og hann undervisade mer, og talade vid mig, og sagde:

22. Daniel! nú em eg sendur til ad undervisa þer. Þviad á þeim tima þá tókst til ad bidia, þá útgeck þetta bod, og eg kom þar fyrer hingad, ad eg kunngere þer þad sama, þviad þú ert kær, og mikels verdur.

23. Þvi hygg nú ad, so ad þú skiler siónena.

24. Sistíu vikur eru álycktadar yfer þitt folk, og yfer þina heiløgu borg, þá mun yfertrodslunne hamlad, og syndenn innsiglud, og misgerningunum forlikast, og þad ed eylífa rettlæted tilfært verda, og siónernar, og spádomarner munu innsiglast, og hinn allrahelgaste mun þá smurdur verda.

25. So vit nú, og merk þú þar uppá, frá þeim tima, nær ed þad bod útgeingur, ad Jerusalem skule upp aptur bygd verda, allt til høfdingians Christum, þá eru siø vikur, og tvær og sextiu vikur, þá verda strætenn og múrveggerner upp aptur bygder, þó þad se á sorgarlegum tima.

26. Og ad lidnum þeim tveimur og sextíu vikum, þá mun Christur upprættur verda, og vera eigi meir. Og eitt folk þess høfdingians mun koma, og borgena, og þann helgedomenn í eyde leggia, so ad þad mun þá einn enda taka, so sem fyrer annad vatnsflód, og allt til enda þess bardaga skal þad í eyde blifa.

27. Enn mørgum mun hann stadfesta sáttmálann um eina viku, og midt í þeirre vikunne mun fornfæringenn og matoffred afleggiast, og hiá þeim vængiunum mun standa svívirding foreydslunnar, og þad er só álycktad, ad menn skule útausa eydeleggingu yfer þá, allt til endingar.

## 10. Capitule.

1. Á þridia áre kongsins Cyri í Persia, vard Daniel (sá ed kalladist Balthezar) nockud þad opinberad sem visst er, og af mikelsháttar efnum, og hann hugsade epter þvi, og merkte þá syn fullvel.

2. Á þeim sama tima var eg Daniel syrgiande í þriár vikur.

3. Eg neytte engrar lystelegrar fædslu, kiøt og vjn kom eigi í minn munn, og eigi smurda eg mig helldur, þangad til ed þær þriár vikurnar voru umlidnar.

4. A þeim fiorda og tuttugasta deige hins fyrsta mánadar, var eg hiá því mikla vatnenu Hidekel.

5. Og eg hóf mín augu upp, og sá, og siá þú! ad þar stod einn madur í línklædum, og hafde gulllinda um sínar lendar.

6. Hans líkame var sem einn turkois, hans andlit so sem elding, hans augu sem logande lios, hans armlegger og fætur sem glóande malmur, og hans málromur var líka sem einn mikell nidur.

7. Og eg Daniel sá soddan syn alleina, og þeir menn sem hiá mer voru sáu hana eigi, þó fell þar ein mikel hrædsla yfer þá, so ad þeir flydu, og földu sig.

8. Og eg var einnsamann epter, og sá þessa enu miklu syn. Enn þar vard ecke afl í mer, og eg vard mióg afskaplegur, og hafde engann krapt meira.

9. Og eg heyrde hans rædu, og í því, ad eg heyrde hana, leid eg nidur á mína ásiónu til jardar.

10. Og siá þú! ein hond hrærde mig, og reiste mig upp á knen, og hendurnar.

11. Og sagde til mín: Þú ástudlege Daniel! merk þau ord sem eg tala vid þig, og rett þig upp, þviad eg em nú sendur til þín. Og þá ed hann talade soddan vidur mig, rette eg mig upp, og skalf.

12. Og hann sagde til mín: hræds þú eigi Daniel! þviad frá þeim fyrsta deige, þá ed þú gyrntest af hiarta ad fá skilning, og þá þú kiáder þig fyrer þínum Gude, þá eru þín ord heyrd: og eg em þinna vegna hingad komenn.

13. Enn hofdingenn ríkesins í Persia lande hefir staded ímóte einn dag og tuttugu, og siá þú! ad Michael, einn af þeim ædstu hofdingum kom mer til hiálpar, þá hellt eg sigrenum hiá konungunum í Persia.

14. Enn nú kem eg ad undervísa þer, hvernenn þínu fólke mune veita her epter; þviad þessi syn mun ske epter nockora tíma lidna.

15. Og sem hann talade soddann vid mig, sló eg mínu andlite nidur til jardar, og þagde.

16. Og siá þú! ad einn, líka sem einn madur, áhrærde mínar varer. Þá lauk eg mínum munne upp, og talade, og sagde til þess sem fyrer mer stód, minn Herra! mín lidamot skiálfa af þessare syn, og eg hefe engan krapt framar meir.

17. Og hvernenn kann þiónn míns Herra ad tala vid minn Herra, med því, ad þar er nú engenn kraptur í mer, og eg hefe ei andardrátt framar meir?

18. Þá áhrærde mig einn aptur, líka sem einn madur ad yferlit, og styrkte mig.

19. Og sagde: óttast eigi, þú elskumadur! fridur se med þer, og ver þú hughraustur! ver þú hughraustur. Og sem hann talade so vid mig, treysta eg mig, og sagde: minn Herra! tala þú, því þú hefir mig styrkann gert.

20. Og hann sagde: veitst þú nockud, hvar fyrer ad eg em kominn til þín? nú vil eg burt aptur hedann, og beriast vidur hofdingiann í Persia lande. Enn nær ad eg fer burt, siá þú! þá mun koma hofdingenn úr Griclande.

21. Þó vil eg kunngiera þer hvad þar stendur skrifad, þad vissulega mun ske, og þar er engenn sem mer

hiálpar mót hinum, utann þðar höfdinge Michael.

22. Þviad eg veitte honum einn-enn lid, á því fyrsta áre Darii í Meden, so þad eg hiálpade honum og stirkte hann.

23. Og nú vil eg kunngera þer hvad ske skal vissulega.

## 11. Capitule.

1. Siá þú, þrír konungar munu enn nú í Persia lande standa, enn sá hinn fiorde mun meira ríkdom hafa, enn aller þeir adrer; og nær ed hann er í sínu ríkedæme sem megtugastur, þá mun hann alla uppvekia á móte því konungsríkenu í Gricklande.

2. Þar epter mun uppstanda einn megtugur konungur, og yferdrottna med miklu vellde, og hvernin hellst ed hann vill, því mun hann til vegar koma.

3. Og nær ed hann er sem hæstt upp komenn, þá mun hans ríke sundurbresta, og fer í þá fiora vinda himensins sundurskipta, eige þó uppá hans epterkomendur, ei helldur einnenn med soddan magt sem hans hefir vered, því hans ríke mun upprætast, og annarlegum ad hlutskipte verda.

4. Og sá konungurenn móte sudrenu, sem er einn út af hans herdhöfdingium, mun megtugur verda, enn imóte honum mun og einn megtugur vera, og yferdrottna, hvers velldisstiornan mun mikel vera.

5. Enn epter nockur ár lidenn, munu þeir vinátttu gera sín á millum. Og dotter þess konungsins móte sudrenu mun koma til hins konungsins móte nordrenu, eindrægne ad gera; enn hún mun eigi blífa vid magt þess armleggsins. Þar ad auk einnenn mun hennar sæde eigi standa, helldur mun hún ofurseldt, ásamt þeim sem hana hafa þangad haft, og mædur barnenu, og þeim sem hana hafde um stundarsaker megtuga gert.

6. Enn kvisturenn einn af hennar rótum mun uppkoma, sá mun koma med ágiætum her, og innfalla í kongsins festing af nordrenu, og þad mun hann frammkvæma, og sigurenn vinna.

7. Hann mun einnenn þeirra Gude og líkneskiur, med kostulegum dyrgripum, bæde af gulle og silfre, burtflytia í Egyptaland, og um nockur ár vidstaded geta þeim konungenum móte nordrenu og nær ed hann hefir igegnum fared konungsríke þess hins sama, þá mun hann inn ferdast aptur í sitt land.

8. Enn hans syner munu reidir verda, og miklu herlide tilsamans safna, og einn þeirra mun koma, og líka sem vatnsflód þar framm dynia, og hina aptur á mót fyrer sínum festingum ercita.

9. Þá mun konungurenn mót sudrenu gremiast, og útfara, og beriast vidur konginn móte nordrenu, og mun so stórann folks fiølda tilsamans draga, so þad hinn flockurenn mun honum í hendur seliast.

10. Og þann sama flockenn mun hann burtflytia. Þar út af mun hans hiarta upphefia sig, ad hann hefir so margar þúsunder vid velle lagt, enn þar med mun hann eigi magt yfer honum fá.

11. Þviad konungurenn móte nordrenu mun enn aptur mikenn folks fiølda tilsamans draga, miklu meira þeim hinum fyrra, og epter nockur ár lidenn, þá mun hann framm bruna med mikenn stridsher, og med miklum ríkdóme.

12. Og á þeim tíma munu marger setia sig igegn þeim konungenum

um móte sudrenu, so munu einn enn nockrer rángsnúner út af þínu fólke taka sig upp, spásøgune ad fylla, og þeir hiner sømu munu falla.

13. Þá mun konungurenn móte nordrenu stammfara, og hervirke gera, og sterkar borger vinna, og þeir armlegger sudursins munu ei fá því vared, og þad hid besta fólk mun eigi kunna því ímóte ad standa.

14. Helldur mun hann, þá ed hann kemur hønum nær, þad gera, sem hønum líkar, og engenn mun hønum ímóte staded geta. Hann mun og einnenn innkoma í þad verduga landed, og mun þad full gera fyrer sína hønd.

15. Og mun sínne augsyn venda þar til, þad hann kome medur magt alls síns ríkis. Enn hann mun forlíkast vidur hann, og mun gefa hønum sína dottur til eignar kvinnu, ad hann fordiarfe hann so, enn þad mun hønum eigi luckast, og þar mun ei af verda.

16. Þar epter á mun hann snúa sér mót eyunum, og yfervinna margar af þeim. Enn einn høfd-inge mun kenna hønum ad láta af hans forsmán, so ad hann forsmáe hann eigi leingur.

17. So mun hann sér aptur snúa til festingar síns lands, og mun reka sig þar á, og nidurfalla, so þad hann mun hverge fundenn verda.

18. Og í stadenn hans mun einn uppkoma. Sá mun í konunglegre tign sitia sem plágare, enn epter fáeina daga mun hann sundur-brotna, þó hverki fyrer reide ne bardaga.

19. Í hans stad mun uppkoma einn fyrerlitenn madur, hverum þad hú konunglega tign var eigi fyrerhugud. Sá mun koma, og þad sama konungsríked medur miúkmælum under sig leggia.

20. Og hiner armleggerner, þeir ed þangad runnu sem vatn, munu af hønum, líka sem ødrum árfosse, yferbugader og sundurbrotner verda, þar med einnenn sá høfdingenn vidur hvern þad sáttmálenn var gerdur.

21. Þviad epter þad hann hefir vináttu gert vidur hann, þá mun hann svikksamlega breyta vidur hann, og mun ferdast þar upp, og hann med fáeinu fólke yferbuga.

22. Og þad sama mun hønum luckast, so þad hann mun koma í hær bestu borger lands síns, og mun því so til vegar koma, sem hverke hans fedur, ne forelldrar feingu gert, medur ránum, gripdeilldum, og útbytingu, og hann mun sinn-da epter þeim sterkustu borgum, og þad same um nockora stund.

23. Og hann mun sína magt, og sitt hiarta, uppvekia ígegn þeim konunginum mót sudrenu med miklum stríds krapte. Þá mun sá konungurenn móte sudrenu upp-hvattur verda til bardaga, med miklu og magtugu herlide, enn hann mun eigi vidstaded geta, þvíad svikræde munu vid hann gerd.

24. Og þeir hiner sømu sem hans braudbiter eru, þeir munu styrkia til ad fyrerkoma hønum, og hans herlide nidur ad þricka, so þad næsta marger munu ólhelslegner verda.

25. Og þeirra beggia konunganna hiarta munu þeinkia hvorn-enn hellst þeir kunne hver ødrum skada ad gera, og munu þó vid eitt bord med underhyggiu hver vid annann tala, enn þad mun þeim eigi vinnast, þvíad endenn er uppá einn annann tíma ályktadur.

26. Epter þad mun hann fara heim aptur med miklu gotse, og sínu hiarta venda imóte þeim heilögum sáttmála, þar mun hann nockru af stad koma, og svo sídann heim fara í sitt land.

27. Epter þad mun hann í hentugum tíma fara inn aptur imóte sudrenu, enn hönum mun þad í annad sinn eigi so luckast, sem í fyrra sinne.

28. Þuíad skipenn út af Chitim munu ímóte hönum koma, so þad hann mun örvænta sier, og flýa aptur ad snúa. Þá mun hann gremiast ígegn þeim heilaga sáttmála og mun þad fullgera, og sig þar um skoda, og þá hina sömu til sín lada sem yfergefa þann heilaga sáttmála.

29. Og hans armlegger munu þar standa, þeir munu og saurga helgedómenn í borgenne, og þad daglega offrid aftaka, og eina svívirding foreydslunnar uppsetia, og hann mun med smiadur hræsne fara, og vidur þá ógudlegu, sem sáttmálann yfergefa, mun hann fagurmæle hafa.

30. Enn þad folk sem sinn Gud vidurkenner mun upphvetia sig, og frammkvæma þad.

31. Og þeir hiner skinsömu á medal folksins munu mörgum ödrum kenna: fyrer þad munu þeir falla fyrer ófridarsverde, ellde, her leidingum, og ráne, nockora stund.

32. Og þá þeir so falla, mun þeim þó samt ein lítel hiálp veitt verda. Enn marger munu med flárræde gefa sig til þeirra.

33. Og þeir hiner skinsömu munu nockorer falla, uppá þad þeir reynder, hreiner, og klárer verde, þangad til ad þad hefir einn enda, þvíad þar er nú einn annar tími fyrer hondum.

## 12. Capitule.

1. Og s[?] konungurenn mun gera hvad hann vill; og hann mun taka sig upp og upphefia sig á móte þvi öllu, sem Gud er, og imóte þeim Gude allra Gudanna mun hann hrædeliga tala, og þad hid sama mun hönum takast, þangad til ad sá reidenn er ute, þuíad þad er úrskurdad, hversu leinge ad þad skule vera.

2. Og um Gud fedra sinna mun hann ei skeita: hann mun hverke um kvenna ást, ne um nockurn Gud hyrda, þvíad hann mun taka sig upp imóte öllum.

3. Enn í stadenn þess, mun hann sinn siálfs eigenn Gud Maosim heidra, þvíad hann mun einn Gud, sem hans fedur hafa eigi af vitad, heidra med gulle, silfre, gimsteinum, og dýrindisgripum.

4. Og hann mun þeim sem hönum hiálpa til Maosim ad efla, medur þeim annarlegum Gude, hvern hann hefir sier útvaled, miklar sæmder veita, og þá ad herrum gera yfer miklu gotse, og landenu ad verdlaunum medur þeim útskipta.

5. Og ad lyktum mun konungurenn mót sudrenu beriast vidur hann, og sá konungurenn móte nordrenu mun útbua sig móte hönum, medur vögnum, riddurum, og skipaflölda, og mun inn falla í löndenn, fordiarfa þau og yfer fara.

6. Og hann mun innbriótast í þad virduga landed, og marger munu tínast. Enn þesser munu úr hans hondum umflýa, Edom, Moab, og þeir frumburder af börnum Ammons.

7. Og hann mun sína magt út-
senda í løndenn, og Egyptaland
mun eigi undann þeirum komast.
8. Helldur mun hann fyrer sína
yferferd drottna yfer gullt, og silf-
re, og yfer øllum fiárfiódum Egyp-
talands, Lybie og Morlands.
9. Enn eitt hróp mun skelfa
hann, úr austre og nordre, og hann
mun med mikellre grimd útfara,
verande þess sinnis, marga ad af-
má og fordiarfa.
10. Og hann mun landtialldz
sinnar hallar uppslá á millumtveg-
gia siáfarhafa, ikríngum þad ver-
duga heilaga fialled, þangad til þad
er útendad um hann, og engenn
mun honum til fulltíngis koma.
11. Á þeim tíma mun sá hinn
mikle høfdinge Michael, sem fyrer
þínu fólks stendur, taka sig upp,
því ad þad mun slík hørmungar tíd
vera, sem ei nockurn tíma hefir
vered, frá því þad menn tóku ad
vera, allt til þess tíma. Og á þeim
sama tíma mun þitt fólk frelsad
verda, aller þeir sem skrifader stan-
da í bókenne.
12. Og marger af þeim sem und-
er jørdunne liggia, og sofa, munu
uppvakna, sumer til eylífs lífs,
sumer til eylífrar skammar og
smánar.
13. Enn þeir sem kenna, munu
skína sem himensins geislar, og
hiner sem mørgum vísa til rett-
lætesins, líka sem stiørnur, um alld-
er og ad eylífu.
14 Og þú Daniel! byrg þú þesse
ord, og innsigla þessa skrift, allt
til þess hins sídarsta tíma; þá mu-
nu marger þar yferkomast, og mik-
enn vísdom finna.
15. Og eg Daniel sá, og sjá þú!
ad þar stódu tveir adrer, einn þessu-
megenn vatnsins, hinn annar
hinumeigenn.
16. Og hann sagde til þess, sem
í línenu var klæddur, hver ofan
til stod hiá vatnenu: hvenær mun
endir verda á slíkum stormerkium?
17. Og eg heyrde til þess, sem
línenu var klæddur, sá ofann til
vid vatned stód, og hann hóf upp
sína hægre og vinstre hønd til him-
ins, og sór vid hann, sem eylífle-
ga lifer, ad þad skule vara um einn
tíma, og nockra tíma, og hálfann
tíma. Og nær ad sú sundurdreif-
ing þess heilaga fólksins hefir en-
da, þá skal allt þetta ske.
18. Og eg heyrde þad; enn eg
skilde þad eigi, og sagde: minn
Herra! hvad mun þar epter ver-
da?
19. Enn hann sagde: gack þú
hedann Daniel! því ad þad er byrgt
og innsiglad, allt til hins sídarsta
tíma.
20. Marger munu hreinsader,
skíraðer og reynder verda, og hin-
er ógudlegu munu ógudlega breyt-
ne hafa, og hiner ógudlegu munu
eigi um þad skeita. Enn hiner
skinsømu munu þess gæta.
21. Og frá þeim tíma, nær þad
daglega offred aftekst, og svívird-
ing foreydslunnar verdur innsett,
eru þusund, tvø hundrud, og níu-
tíu dagar.
22. Sæll er sá, sem epter bídur,
og nád getur, þusund, þriuhund-
rud, fimm og þriátíu døgum.
23. Enn þú, Daniel! far hed-
ann, þangad til þad enderenn kem-
ur, og hvíl þig, þad þú uppstánder
til þíns hlutskiptis á endanum
þeirra daga.

Ender Prophetans Danielis.

# Prophetenn Hoseas.

## 1. Capitule.

1. Þetta er þad Drottens ord, sem skede til Hoseam, Beheri sonar, i tid Usiæ, Jotham, Achas, og Ezechia, konunganna Juda, og á tid Jerobeams, Joas sonar, kongsins i Israel.

2. Og þá Drottenn upphóf ad tala fyrer Hoseam, sagde hann so til hans: far þú og tak þer eina hórkonu og hórnbørn! þviad landed hleypur frá Drottne epter hóran.

3. Og hann geck burt, og tók Gomer, Diblaims dottur, hver ad vard þúngud, og hún fæddi honum einn son.

4. Og Drottenn sagde til hans: kalla þú hann Jesreel, þvi þad er enn smá um einn líteun tíma ad gera, þá vil eg vitia blódskullbarennar i Jesreel, yfer Jehu hús, og eg vil gera einn enda á þvi konungsríke Israels húss.

5. Og á þeim tíma vil eg sundurbrióta Israels boga i Jesreels dal.

6. Og hún vard þungud (annad sinn, og fædde eina dottur. Og hann sagde til [hans]: lát þú nefnast, Lorychama, þviad eg vil eigi framar miskun gera Israels húse, helldur vil eg burtkasta þvi.

7. Enn þó vil eg miskuna húsenu Juda, og eg vil hiálpa þeim fyrer Drottenn þeirra Gud, enn eg vil eigi hiálpa þeim, hverke fyrer boga, sverd, stríd, hesta, ne riddara.

8. Og þá hún hafde afvaned Lorychama, þá vard hún aptur þúngud, og ól einn son. Og hann sagde: nefn þú hann Loammi, þviad þer erud eigi mitt folk, so vil eg og eigi vera ydar.

## 2. Capitule.

1. Og Talann Israels barna skal vera sem siáfarsandur, hvern menn kunna hverke ad mæla ne telia. Og þad skal ske, i þeim stad, þar sagt var til þeirra: þer erud eigi mitt folk; þá skulu menn segia þar til þeirra: ó þer lifande Guds børn!

2. Þviad Juda børn og Israels børn skulu koma tilsamans, og hallda ser aller hver med ødrum, til eins høfuds, og ferdast upp frá landenu. Þviad Jesreels dagur skal vera einn mikell dagur.

3. Seged ydrum brædrum: þeir eru mitt fólk; og til ydar systur: hún sef náduune.

4. Seged dóm yfer ydarri modur: hún se eigi mín kvinna, og eg vil eigi hafa hana. Skiped henne ad láta sína hóran frá ser, og hennar hórdom frá sínum bríóstum.

5. So ad eg gere hana eigi nakta, og sete hana þangad aptur, sem hún var, þar hún var fædd, og so ad eg gere hana eigi, sem eina eydemork, og sem eitt þurrt land, og eg láte hana eigi deya af þorsta.

6. Og ske eigi aumur á hennar børnum, þvi þau eru hóru børn.

7. Og þeirra móder er ein hóra. Og sú sem fædde þau helldur sig skammarlega, og seger: eg vil hlaupa epter mínum fylgiumønnum, sem gefa mer braud, vatn, ull, lín, vidsmiør, og drick.

8. Þar fyrer sia þú! eg vil aptur byrgia þinn veg med þyrnum,

og blada sinn vegg þar fyrer, so hun finne eigi sina stigu.

9. Og þá hún hleypur epter sínum fylgiumønnum, ad hun eigi náe þeim, og þá hún leitar epter þeim, eigi finne þá, og hljóte ad segia: eg vil snúa aptur til míns fyrsta manns, þar eg átte betra enn nú á eg.

10. Þvi hún vill ei vita, ad eg em sá sem gefur henne korn, vín, og viðsmiør, og ad eg hefe gefid henne mikid silfur og gull, þad hún hefir haft Baal til byrdar.

11. Þar fyrer vil eg taka mitt korn og vín aptur á sinum tíma, og fráſnúa minne ullu og líne, med hvøru hún hulde sína blygdan.

12. Enn nú vil eg uppſletta hennar ſkømm fyrer augum hennar fylgiumanna, og engenn ſkal frelsa hana frá minne hende.

13. Og eg vil gera einn enda á allre hennar glede, hátídum, tunglkomum, ſabbatsdøgum, og øllum hennar helgedøgum.

14. Eg vil eydeleggia hennar víntre og fíkiutre, fyrst hún seger: þad eru mín laun, sem míner fylgiumenn gefa mer. Eg vil gera einn ſkóg þar út af, so ad villudyrenn ſkulu uppeta hann.

15. So vil eg vitia yfer hana þeirra Baalíms daga, hverum hún gerer reykoffur, og pryder sig med ennisſpøngum og hálsbøndum, og hleypur epter sínum fylgiumønnum, og gleymde mer, seger Drottinn.

16. Þar fyrer siá þú! eg vil locka hana, og eg vil leida hana í eydemørk, og tala vinsamlega til hennar.

17. Þar vil eg gefa henne af þeim sama stad, hennar víngard, og Achors dal, til ad uppláta vonena. Og þar ſkal hún syngia, sem á sínum æſkutíma, þá hún fór út af Egyptalands.

18. Þá, seger Drottenn: ſkalt þú kalla mig, minn madur, og þú ſkallt eigi meir kalla mig, minn Baal.

19. Þvi eg vil burttaka Baalíms nafn af þeirra munne, so menn ſkulu eigi meir minnast á þad nafn.

20. Og á þeim tíma vil eg gera þeim einn sáttmála vid dyrenn á mørkenne, vid fuglana under himnenum, og vid ſkridkvikendenn á jørdunne, og eg vil sundurbrióta af landenu boga, sverd og ſtríd, og eg vil láta þá búa tryggelega.

21. Eg vil trúlofa mig þer ad eylífu: eg vil trúlofa þig mer í rettlæte og døms, í nád og miskunseme.

22. Já, eg vil trúlofa mig þer í trunne, og þú munt þeckia Drottinn.

23. Eg vil bænheyra á þeirre sømu tíd, seger Drottinn: eg vil bænheyra himenenn, og himenenn ſkal bænheyra jørdena.

24. Og jørdenn ſkal bænheyra korned, vínid, og vidſmiøred, og þau ſkulu bænheyra Jesreel.

25. Og eg vil hallda hana mer til eins sædis á jørdunne, og miſkuna mig yfer þá sem í óvináttunne var, og segia til [illegible] sem ei var mitt folk: þú ert mitt folk! og þeir ſkulu segia: þú ert minn Gud!

## 3. Capitule.

1. Og Drottinn sagde til mín: gack þú enn einusinne burt, og ligg hiá þeirre frillu og hórkonu, líka sem Drottinn liggur hiá Jſraels børnum, og þeir snúa ser þó til annarlegra Guda, og láta locka sig fyrer eina kønnu víns.

2. Og eg varð áſáttur við hana um fimmtan ſilfurpeninga; og fyrer hálfann annann Homer byggs.

3. Og eg ſagde til hennar: hallt Þú við mig nockora ſtund, og dryg engann hórdom, og lát engann annann til Þín, Því eg vil og ſo hallda við Þig.

4. Þviad Iſraels boͤrn ſkulu langann tíma vera án konungs, án hoͤfdingia, án offurs, án alltaris, án liſkortils, og án helgedóms.

5. Enn epter Það ſkulu Iſraels boͤrn umvenda ſer, og leita ad Drottne Þeirra Gude, og ad David Þeirra konunge, og Þeir ſkulu dyrdka Drottinn, og hans náð, í ſídurſtu tíð.

## 4. Capitule.

1. Heyred Drottins ord Þer Iſraels boͤrn! Þviad Drottinn hefir ordſok til ad ávíta landſins innbyggiara. Þviad Þar er enginn trú, enginn kærleike, ecke Guds ord í landenu.

2. Helldur Gudlaſtan, lygar, mord, Þiofnadur og hórdomur hafa yfertród feinged, og ein blódſkulld kemur epter adra.

3. Þvi ſkal landed ſtanda aumlega, og Þeſs innbyggiurum ſkal oͤllum illa vegna, Því dyrenn á moͤrkenne, og fuglarner under himnenum, og fiſkarner í hafenu, ſkulu burttekner verda.

4. Þó Þora menn hvorke ad ávíta, ne nockurn ad ſtraffa, Þviad Þitt fólk er ſo ſem Þeir ed ſtraffa preſtana.

5. Þvi ſkallt Þú falla á deigenum, og ſpámadurenn ſkal falla á nóttunne hiá Þer, ſo vil eg ſvipta Þinne módur burt.

6. Mitt fólk er burt, ſokum Þeſs Það vill eigi læra. Þvi Þú burtkaſtar Guds orde, Þar fyrer vil eg og burtkaſta Þer, ad Þú ſkallt eigi vera minn preſtur. Þú forgleymer Guds Þíns loͤgmále, Þar fyrer vil eg og forgleyma Þínum boͤrnum.

7 Þeſs fleyre Þau verda, Þeſs meir ſyndgaſt Þau á móte mer, Þar fyrer vil eg gera Þeirra æru til ſkammar.

8. Þau uppeta ſyndaoffur míns fólks, og hafa gyrnd til Þeirra ſynda.

9. Þar fyrer ſkal Það ganga fólkenu, líka ſem preſtenum, Því eg vil heimſækia Þeirra gierninga, og launa Þeim ſo ſem Þeir forÞena.

10. Ad Þeir ete og eigi verde metter, freme hórdoma, og Það ſkal eigi luckaſt Þeim, Því Þeir forletu Drottinn, og ſinntu honum eigi.

11. Hórdomar, vín, og muſt, gerer menn galna.

12. Mitt folk adſpyr ſitt tre, og Þeſs ſtafur ſkal predika fyrer Því, Þviad hórunar ande viller Þá, ſo Það Þeir fremia hór á móte ſínum Gude.

13. Þeir fornfæra uppá fioͤllunum, og gera reykelſe á hædunum under eykenne, lindenne og beyketrenu, Þviad Þau hafa ſinnann ſkugga. Þar fyrer ſkulu og ſo ydrar dætur verda hórur, og ydrar brúder hórkonur.

14. Og eg vil eigi aſſtra Því, Þá ydrar dætur og brúder verda ſkammadar, og ad hórum verda, ſyrſt Þer uppſeted adra Guds Þiónkan med hórum, og offur med ſkækium, Því Þetta heimſka ſolk vill vera ſleiged.

15. Vil Þú Iſrael hórdom dryga, ſo ad Juda ad eins kome eigi einneigenn í ſkulld. Ganged ei burt til Gilgal, og komed ei upp til Beth

Auen, og sveried eigi (so sannarle-ga sem Drottinn lifer.)

16. Þvi Israel hleypur sem galenn kyr, so skal og Drottinn lata þana fodrast sem eitt lamb, þad vidt hleypur.

17. Þvi Ephraim hefir gefed sig, til afguda; so lát hann fara burt.

18. Þeir hafa gefed sig til Ef-neytslu og hórunar, og þeirra Herrar hafa þar lyst til, ad þeir uppreisa skammer.

19. Vindurenn skal utdrifa þá bundna med sinum vængium, og þeir skulu verda til skammar yfer sinu offre.

## 5. Capitule.

1. So heyred nú þetta þer prest-ar! og þú Israels hús! gef gæt-ur ad! og þú konungsins hús! tak þer til eyrna! Þvi þar skal ganga eitt straff yfer ydur, þer sem erud ordner ein snara í Mizpa, og eitt útþanet net á Thabor.

2. Þeir drekkia ser med slátrun-enne, í sinum hlaupum, þar fyrer hlyt eg ad straffa þá allasamann.

3. Eg þecke vel Ephraim, og Israel dylst eigi fyrer mer, ad E-phraim er nú ein hóra, og Israel er saurug.

4. Þeir þeinkia ei þar uppá, ad snúa ser til síns Guds, þvi þeir hafa einn hóru anda í sinum hiort-um, og kenna eigi út af Drottne.

5. Þar fyrer skal Israels bramb-some nidurþrickiast, fyrer þeirn-ar augsyn, og bæde Israel og Ephraim skulu falla, sokum þeir-ra mísgiørninga, Juda skal og falla med þeim.

6. Þá skulu þeir koma med sína saude og naut, ad leita Drottins, enn finna hann ei. Þviad hann hefir snúed ser frá þeim.

7. Þeir forsmá Drottinn, og geta ønnarleg børn, þar fyrer sku-lu og þeirra nyu mánuder eta þá, med þeirra arfdeild.

8. Já! blásed í basunur, þer í Gibea: já! trommeted í Rama: já! kalled þer í Beth Auen, á bake þer Benjamin!

9. Þvi Ephraim skal verda í eyde, á þeim tíma, þá eg mun straffa hana: þar fyrer hefe eg trúlega vidvarad Israels ættkvíslér.

## 6. Capitule.

1. Høfdingiarner í Juda eru líka, sem þeir ed flytia landamerke, þvi vil eg úthella minne reide yfer þá sem ødru vatne.

2. Ephraim þoler yfergang, og er plágadur, þar med skedur hann rett, þviad hann hefir gefed sig til bodorda (mannanna).

3. Eg em Ephraim einn molur, og Juda húse einn madkur.

4. Og þá Ephraim fann sinn siukdom, og Juda sín sár, þá fór Ephraim burt til Assur, og sende bod til konungsins í Jareb, enn hann kunne ei ad hiálpa ydur, ei heldur ad lækna ydar sár.

5. Þviad eg em Ephraim sem eitt leon, og Juda húse sem ungt leon, eg, eg sundurríf þá, og geing burt, eg rek þá burt, og engenn kann ad hiálpa þeim.

6. Eg vil fara til míns stadar aptur, þar til ad þeir þeckia sína skulld, og leita ad mínu auglite, nær þeim geingur illa, þá munu þeir árla vitia mín (og segia).

7. Komed! ver viliom aptur til Drottins, þvi hann hefir sundur-slited oss, hann mun og græda oss.

8. Hann skal gera oss lifande epter tvo daga: hann skal upprei-

sa oss á þann þridia dag, so ver munum lifa fyrer honum.

9. Þá munum ver til vara taka, og ástundunarsamer vera, ad ver þeckium Drottinn. Þviad hann skal framm brietast, líka sem fagur morgunrode, og hann mun til vor koma sem eitt regn, já, sem ein kvølldskúr, sú jørdena vøkvar.

10. Þvi mun eg so vel gera vid þig Ephraim? þvi mun eg gera so vel vid þig Juda? þviad sú nád, sem eg vil veita og audsyna ydur, skal vera sem eitt daggarsky um morguninn, og so sem døgg, sú árla morguns sig útbreider.

11. Þar fyrer hefla eg þá fyrer prophetana, og í hel slæ þá med orde míns munns, ad þinn rettur skal koma til liossins.

12. Þviad á miskun hefe eg þocknan, enn eigi á offre, og á þeckingu Guds, enn eigi á brennefórnum.

13. Enn þeir yfertrádu sáttmálann, líka sem Adam, þar úti forsmádu þeir mig.

14. Þvi Gilead er einn stadur, fullur med afgudadyrdkan og blódskulld.

15. Og prestarner, med sínum selskab, eru líka sem vegarænìngar, hverer ad umsitia fólked, og myrda á veigenum sem liggur til Sichem, þvi þeir gera hvad þeir vilia.

16. Eg se í Israels hús, fyrer hveru mig gruar, þvi Ephraim dryger þar hórauer, so saurgar Israel sig.

17. Og Juda skal hafa enn eina haustvinnu fyrer sig, nær eg vil snúa fangelse míns fólks.

## 7. Capitule.

1. Þá eg vil lækna Israel, þá kemur fyrst framm Ephraims synd, og sú illska Samarie, hverju þær hafa framed afguda dyrdkaner. Þviad þó þeir hafe plégast med þiófum sín á mille, og hid ytra med ræningium,

2. Samt þá villa þeir þad eigi akta, ad eg formerke alla þeirra vondsku, enn eg se vel þeirra athæfe, hvert þeir allstadar hafa.

3. Þeir hughreysta kongenn med sinne illsku, og høfdingiana med sínum lygum.

4. Og þeir aller eru hórkarlar, sem einn bakstur ofn, sem bakarenn heitann gerer, þá hann hefir útbnodad, og lætur deiged sprast og bólgna.

5. J dag er vors kongungs hátíd, þá taka høfdingiarner til ad verda galner af víne, þá dregur hann spottarana til sín.

6. Þvi þeirra hiarta er í glóanda banka, sem einn bakstur ofn, þá þeir offra, og fólked villist. Enn þeirra bakare sefur alla nótt, enn ad morgne brennur hann klár loge.

7. Þó eru þeir med so heitum alvarlegleika, sem einn bakstur ofn, líka vel, þó ad þeirra dómarar uppetest, og aller þeirra kongungar falle, þó er engenn á medal þeirra sem kallar á mig.

8. Ephraim samblandar ser á medal fólksins, Ephraim er sem ein kaka, þeirre ed engenn um snyr.

9. Helldur eta annarlager hennar krapt, þó vill hann eigi þar ad gæta. Hann hefir og so fenged grá hár, líka vel vill hann þad eigi akta.

10. Og Israels drambseme skal nidurþrickiast fyrer þeirra augum, og þó snúa þeir sier eigi til Drottins þeirra Guds, og í øll. ri þessum hlutum hyrda þeir eigi vor um hann.

11. Þvi Ephraim er líka sem ein burt lockud dufa, sem eigi neitt vill merkia, stundum kalla þeir á Egyptaland, stundum hlaupa þeir til Assur.

12. Enn fyrst þeir hlaupa nú hingad og þangad, þá vil eg minu nete varpa yfer þá, og slá þeim her nidur, líka sem fuglum under himnenum: eg vil straffa þá, sem menn predika í þeirra samkundum.

13. Vei þeim! þad þeir viku frá mer: þeir hlióta eydelagder ad verda, þvi þeir eru fallner frá mer. Eg villde vel hafa frelsad þá, hefdu þeir eigi kennt lygar móte mer.

14. Þeir kolludu eigi helldur á mig af hiarta, helldur ylbrudu þeir í sínum sængum. Þeir safnast samann sökum víns og korns, og eru mer óhlydnger.

15. Eg kennde þeim, og styrkte þeirra armlegge, enn þeir hugsa vondt um mig.

16. Þeir umverda sier, enn eigi rettelega, helldur eru þeir sem falskur boge; þvi skulu þeirra hofdingar falla fyrer sverde, og þeirra hótaner skulu verda til spotts í Egyptalande.

## 8. Capitule.

1. Hrópa þú hátt! so sem einn herlúdur, og seg þá: hann kemur alla leidu yfer hús Drottens sem einn örn; þvi þeir yferfalla minn sáttmála, og eru fallner frá minu lögmále.

2. Þá munu þeir kalla til mín: þú ert minn Gud, ver þeckium þig Israel.

3. Israel forleggur þad góda, þar fyrer má óvinurenn ofsækia þá.

4. Þeir gera ser konga, enn án mín: þeir setia höfdingia, og eg á þad eigi ad vita: þeir gera ser afgude, af sínu silfre og gulle, so ad þeir verda snart uppræter.

5. Samaria! hann burtkastar þínum kálfe, mín reide er grimm yfer þeim, þad má eigi lenge so standa, þeir verda ad straffast.

6. Því kálfurenn er komenn frá Israel, og einn hagleiksmadur gerde hann, enn þad má þó eigi vera neinn Gud, þvi skal kálfur Samarie verda ad dúste.

7. Þviad þeir sá vinde, enn munu uppskera storm. Þeirra sæd skal ei uppkoma, og þeirra gróde skal ecke miöl gefa, og þó þad gefest, þá skulu annarleger þad eta.

8. Israel verdur uppetenn: heidingiarner leika hann út, líka sem annad andvirdelegt ker.

9. Þar fyrer, ad þeir hlaupa upp til Assur, líka sem villudyr í villu Ephraim skenker sínum elskhugum, og gefur heidingium skatt.

10. Þeim sömum heidingium vil eg nú samansafna yfer þá: þeir skulu snart verda þreytter af kongsins byrde og höfdingianna.

11. Þvi Ephraim gerde mörg ollturu ad syndgast med, so skulu og olltarenn verda honum til syndar.

12. Og þó eg skrifade honum enn mörg og margt um mín lög, þá álitu þeir þad so sem annarlegann lærdóm.

13 Þad þeir nú miklu offra, bera framm kiöt, og eta þad, þá hefur þó Drottinn einga þocknan á þvi, helldur vill hann minnast þeirra misgerninga, og heimvitia þeirra synda, sem snúa ser til Egyptalands.

14. Israel gleymer sínum skapara, og smídar kyrkiur, og Juda byggir marga sterka stade, enn eg vil senda elld í hans stade, sem eyda skal hans húsum.

## 9. Capitule.

1. Israel! þú þarft eigi ad glediast, ei helldur ad hrósa þer sem þiódernar, þvi þú fremur hór imóte þínum Gude, hvar med þú leitar hórulauna, so ad allar kornhlodur yrdu fullar med korn.

2. Þar fyrer þá skulu hverke kornhlodur, ne vínpressur fæda hana, og víned skal bregdast henne.

3. Og þer skulud eigi vera í Herrans lande, helldur skal Ephraim aptur í Egyptaland, og hlytur í Assyria ad eta þad, sem er óhreint.

4. Þar sem þeir skulu eigi kunna ad offra Drottne drickiaroffur af víne, eda nockud annad honum til þocknunar ad gera. Þeirra offur skal verda sem braud sorgfullra, af hveru aller verda óhreiner, þeir sem þar af eta. Þvi þeir skulu eta sitt braud hiá ser siálfum, og þad skal eigi berast í Herrans hús.

5. Hvad villd þer þá gera á ártídum, og á Drottens hátídis døgum?

6. Siá þú! þeir skulu burt fyrer eydeleggiarnum. Egyptaland skal safna þeim, og Moph skal grafa þá. Netlur skulu þar vaxa, þar sem þeirra elskulegu silfur afguder nu standa, og þyrnar í þeirra tialldbúdum.

7. Vitiunartímenn er komenn, endurgiallldstímenn er komenn, þad skal Israel vel formerkia. Prophetarner eru þussar, og þeir villuandar eru sinnulauser, fyrer þinn stóra misgerning, og sokum þeirrar stóru haturlegu afguda dyrdkunar.

8. Vardhalldsmennerner í Ephraim hélldu sig í sødum daga til míns Guds, enn spámennerner eru nu þeir sem snørur-leggia á ølla þeirra vegu, med haturlegre afgudadyrdkan í þeirra guds húse.

9. Þeir fordiarfa þad nidur í grunn, so sem í Gibeons tíd, þar fyrer skal hann minnast á þeirra misgerninga, og vitia þeirra synda.

10. Eg fann Israel í eydemørku, so sem vínþrugu, og eg sá ydra fedur so sem hinar fyrstu fíkinr á fíkiutrenu, enn þar epter geingu þeir til Baal-Peor, og gáfu sina trú þeim skammarlega afgudi, og þeir urdu so svívirdeleger sem þeirra fylgiumenn.

11. Þar fyrer skal Ephraims vegsemd burtflinga sem einn fugl, so þeir skulu hverke fæda ne bera, ne þungader verda.

12. Og þó þeir alla reidu uppala sín børn, þá vil eg þó gera þá barnlausa, so þeir skulu eigi fólk vera. Og vei þeim nær eg em burt frá þeim vikenn!

13. Ephraim, sem mier synest, er plantud og føgur sem Tyrus, enn hlytur nu ad gefa sín børn út fyrer manndráparann.

14. Drottenn gef þeim! enn hvad villt þú gefa þeim? gef þeim ávaxtarlaust líf, og þurr brioft.

15. Øll þeirra vondska sker í Gilgal, þar hata eg þá, og eg vil hrinda þeim út af mínu húse, søkum þeirra vonds athæfis, og eingann kiærleika vil eg þeim framarmeir audsyna, þvi aller þeirra høfdingiar eru fráfallner.

16. Ephraim er sleigenn, þeirra rót er skræld, so ad þeir geta eingann ávøxt meir bored, og þó þeir eyn fædde, þá vil eg líka slá ihel þeirra elskulegann lífs ávøxt.

17. Minn Gud mun burt kasta þeim, þvi ad þeir villdu eigi heyra hann, og þeir skulu villast á medal heidingianna.

## 10. Capitule.

1. Israel er eitt eydelagt víntre: hans ávøxtur er og líka so, því so mikenn ávøxt sem hann hefde so margt alltare hefde hann gjørt. Hvar landed var allra best, þar settu þeir sínar fegurstu kyrkiur.

2. Þeirra hiarta er sundurdeillt. Nú skulu þeir finna sína skulld. Þeirra ølturu skulu sundurbriótast, og þeirra kyrkiur skulu kollkastest.

3. Þá skulu þeir segia: ver høfum engann konnung, þviad ver óttustum eigi Drottinn: hverju kann konungurenn ad hiálpa oss nú?

4. Þeir sóru forgefins, og gerdu einn sáttmála, og sodann rád grænka á øllum plógførum á mørkenne, so sem gall.

5. Innbyggiarar í Samaria eru stúrande vegna kálfsins í Beth Auen, því hans fólk stúrer fyrer honum, yfer hverum þó ad hans Samarim plógudu ad glediast, hans vegsemdar vegna, því hann er burtflutter frá þeim.

6. Iá! kálfurenn er flutter í Assyria, konunginum til einnrar skeinkingar, í Iareb. So skal Ephraim skammast sín, og Israel skal hafa skønroda fyrer sína upptekt.

7. Því konnungurenn af Samaria er burtu, líka sem froda á vatne.

8. Hæderner til Auen eru afmádar, med hverum Israel syndgadest: þar vaxa þystlar og þyrner á þeirra ølturum, og þeir skulu segia: þer fiøll hylied oss! og þer hálsar falled yfer oss!

9. Israel! þú hefer syndgast sídan Gibeons tíd: vid þad hafa þeir og halldest sig; enn sodann strid, sem skede móte þeim vondum mønnum í Gibea, skal eigi koma yfer þá.

10. Helldur vil eg straffa þá epter minne ósk, ad þar skal koma samansafnad fólk yfer þá, þegar eg vil straffa þá fyrer þeirra tvær synder.

11. Ephraim er einn tilvaninn kálfur, so hann þresser giarnann. Eg vil stíga yfer hans fagra háls: eg vil rída á Ephraim. Juda skal eria, og Jacob jafna.

12. Þar fyrer sáed ydart rettlæte, og uppskered kærleikann, og ered ødrúvis, medann tíminn er, ad leita Drottens, þar til hann kemur, og døggar rettlætenu yfer ydur.

13. Þvíad þer sáed illu, og uppskered vonda gerninga, og eted lygennar ávøxtu. Sokum þess þú, ad þú treyster á þína breytne, og á fiølda þinna stridskappa,

14. Þá skal þar upphefiast eitt upphlaup á medal þíns fólks, so ad aller þíner faster stader skulu hrapa. Líka sem Salman eydelagde Arbeels hús, á þeim strids tíma, þá mædurnar voru nidurslegnar med ølln til dauds yfer børnunum.

15. So skal þad og so ganga ydur í Bethel, sokum ydrar stórrar illsku, so ad Israels konungur skal undergangast snemma ad morgne.

## 11. Capitule.

1. Þá Israel var ungur, hafde eg hann kærann, og kallade hann minn son, af Egyptalande.

2. Enn þegar menn kalla þá nú, þá snúa þeir þar frá, og offra Baalim, og veifa reykelsinu fyrer bílætum.

3. Eg tók Ephraim um hans arm, og leidde hann; enn þeir merk

þó það eigi með hvörru móte eg hiálpade þeim.

4. Eg let þá draga eitt mannlegt ok, og ganga í kærleiks böndum, og hiálpaði þeim að bera okeð á sínum hálsum, og eg gaf þeim fóður.

5. Að hann skyllde ei snúa sér aptur til Egyptalands, so er nú Assur orðenn þeirra konungur, því þeir vilia eigi umsnúa sér.

6. Því skal sverðeð koma yfer þeirra stade, og gera þeirra grindur til einskis, og uppsvelgia þær, sökum þeirra áforms.

7. Mitt fólk er þreytt að snúa sér til mín, og þó maður predike fyrer þeim, þá uppréttir engenn sig.

8. Hvað skal eg gera af þér Ephraim? skal eg vernda þig Israel? skal eg eigi með réttu gera eins Adama af þér? og útleika þig sem Zeboim? enn mitt hiarta er öðruvís sinnað, mín miskunsemi er so miög brennheit.

9. Að eg vil eigi gera epter minne grimmdar reiðe, ne snúa mer að fordiarfa Ephraim allðeilis, því eg em Guð, enn eigi maður, og er sá heilage á meðal þín. Enn ei vil eg í staðenn koma

10. Þá skulu menn epterfylgia Drottne, og hann skal öskra sem eitt Leon, og þegar hann öskrar, þá skulu þeir hræðast sem eru ímóte vestrenu.

11. Og þeir í Egyptalande skulu og fælast sem einn fugl, og þeir í Assyria lande sem dúfur, og eg vil setia þá í þeirra hús, seger Drottinn.

## 12. Capitule.

1. I Ephraim eru á alla vegu lyger á móte mer, og í húse Israelis fölsk Guðs þiónusta, enn Juda helldur fast enn við Guð, og á þeirre réttu heilögu Guðs þiónustu.

2. Enn Ephraim fæðer sig af vinde, og hleypur epter austanvindenum, og gerer daglega meire afguðadyrkan, og lýgi, þeir gera eitt samhellde við Assur, og færa balsamum í Egyptaland.

3. Því skal Drottinn gefa Juda sök, og heimsækia Jacob, epter hans athæfe, og bitala hönum epter hans forþenan.

4. Hann undertráð sínar bræður í sinnar móðurkviðe, og glímde við Guð af öllu sínu afle.

5. Hann tuskaðest við engelenn, og yfervann, því hann grét og bað hann, og hann fann hann í Bethel, og þar talaðe hann við oss.

6. Enn Drottinn er sá Guð Zebaoth, Drottinn er hans nafn.

7. Því snú þér nú til þíns Guðs, hallt þú miskunsemd og réttlæte, og treyst þá alltíð á þinn Guð!

8. Enn kaupmaðurenn hefir falska vickt í sinne hende, og svíkur giarnann.

9. Þvíað Ephraim seger: eg em ríkur, eg hefe nóg, engenn misgerningur skal finnast með meir, í öllu mínu arfiðe, það að synd se.

10. Enn eg Drottinn er þinn Guð, allt frá Egyptalande, og sá sem lætur þig enn nú byggia í tiallðbúðum, so sem menn plaga á ártíðum.

11. Og eg tala til spámannanna, og er sá sem gef so mikla spádóma, og auðsyne mig fyrer prophetunum.

12. I Gilead er afguða dyrðkan, og í Gilgal offra þeir uxum forgefens, og þeir hafa so mörg alltare sem steinhrúgur á mörkenne.

13. Jacob varð að flýa til Syrlands, og Israel málte þióna,

fyrer einnrar kvinnu skulld; fyrer eina kvinnu mátte hann vakta fenad.

14. Enn þar epter færde Drottinn Israel af Egyptalande, fyrer einn spámann, og iet hvara hann, fyrer einn prophecta.

15. Enn nú stygger Ephraim hann med sinum afgudum, þvi skal þeirra blód koma yfer þá, og þeirra Herra skal bitala þeim þeirra hádungar.

## 13. Capitule.

1. Þá Ephraim kennde hrædelega, þá var hann upphafenn í Israel, þar epter syndgudust þeir fyrer Baal, og urdu þar fyrer deydder.

2. Enn þeir gera nú miklu meire synder, og af þeirra silfurmindum, so sem þeir kunna siálfer upp ad þeinkia, sem eru Skúrgod, og eru þó eigi annad enn smidsins gerningar, þó predika þeir út af þeim sömu. Hver sem kálfenn vill kyssa, hann skal manne offra.

3. Þeir sömu skulu hafa morgunskyenn, og þá dögg sem fellur snemma. Já! líka sem agner burtfeykiast fra kornhlödu, og sem reyk ur úr skorsteine.

4. Enn eg em Drottinn þinn Gud af Egyptalande, og þú átter engann annann Gud ad þeckia utan mig, og engann hiálpara uten mig alleina.

5. Eg tók þig ad mer í eydemörkunne, í þvi þurra lande.

6. Enn af þvi þeir voru fódrader, so ad þeir eru ordner sadder, og hafa nóg, þá upphefir þeirra hiarta sig, þvi gleyma þeir mer.

7. Þar fyrer vil eg nú vera á móte þeim sem eitt Leon, og so sem einn Pardus vil eg umsitia þá á veigenum.

8. Eg vil mæta þeim sem eitt biarndyr, sem ungarner eru frátekner, og vil sundurrífa þeirra harðudigt hiarta, og eg vil uppeta þá þar sem eitt Leon, og villudyrenn skulu ísundurrífa þá.

9. Israel! þá kemur þer í ólucku, þvi þín hiálp er alleinasta hiá mer.

10. Hvar er þinn konungur? hvar er hann her hiálpa kann í öllum þínum stödum? og þíner dómendur, um hvöra þú segder: gef mer konunga og höfdingia?

11. Nú vel! eg gaf þer einn konung í minne reide, og eg vil burttaka hann frá þer med grimd.

12. Ephraims ranglæte er tilsamans bunded, og hans synder eru geymdar.

13. Þvi þeir skulu fá hríggd, líka sem sú ed fæder, þvi þad eru óforsiáleg börn, sú tíd skal koma, ad þeir skulu eigi þola vid ad vera, fyrer hörmung barnanna.

14. Enn eg vil leysa þá af helvíte, og frelsa þá frá daudanum. Daude! eg vil vera þín plágan, helvíte! eg vil vera þín drepsótt. Þó er huggunenn hulenn fyrer minum augum.

15. Þvi hann skal vera ávöxt á medal brædranna. Þar skal koma einn austanvindur, Drottinn skal uppstíga af eydemörkunne, og uppþurka þeirra brunna, og uppþurka þeirra uppsprettur, og hann mun ræna sémunum allra kostulegra kera.

16. Samaria skal eydeleggiast, þvi þeir eru sínum Gude óhlydugser, þeir skulu falla fyrer suerde, og þeirra ungbörn skulu ísundurm riast, og þeirra þungader kvinnur skulu ísundurslitna verda.

## 14. Capitule.

1. Snú þer þú Israel! til Drottins Guds þíns, þvi þú ert fallenn, sakum þinna misgerda.

2. Taked þesse ord med ydur, og snúed til Drottins, og seged til hans: fyrergef oss allar synder, og ger þú oss godt, so vilium ver offra uxum vorra vara!

3. Assur skal eigi hiálpa oss, og ver vilium eigi meir rída á hestum, og eigi optar segia til gerninga vorra handa: Þer erud vor Gud; helldur lát fødurlausa finna nád hiá þer!

4. So vil eg lækna þeirra yfertrodslu aptur, eg vil giarnann elska þá, þá skal mín reide snúa ser frá þeim.

5. Eg vil vera Israel sem dogg, og hann skal blomgast sem ein rós, og hans rætur skulu útbriótast sem Libanon.

6. Og hans vidargreiner skulu útbreidast, ad hann skal verda so fagur sem olíutre, og hann skal gefa so sætann ilm sem Libanon.

7. Og þeir skulu ad nyu sitia under hans skugga: þeir skulu fædast af korne, og blomgast sem víntre; hans minning skal vera líka sem víned á Libanon.

8. Ephraim! hvad skulu meir frammveigis afguder! eg vil heyra hans bæn, og leida hann, eg vil vera sem eitt grænkande grenetre, og á mer skulu menn sinna þína ávøxtu.

9. Hver er víss sem under stendur þetta? og klokur sem þvílíkt merker? Þvi veiger Drottins eru retter, og þeir rettlátu ganga á þeim, enn yfertrodslumennerner falla á þeim.

Ender Prophetans Hoseas.

# Prophetenn Joel.

## 1. Capitule.

1. Þetta er þad ord Drottins, sem skede til Joels, Pethuels sonar.

2. Heyred þetta þer hiner ellstu! og merked vel aller landsins innbyggiarer! hvert sóddan hefir sked nockurn tíma á ydarri tíd, eda ydara forelldra tíd?

3. Seged ydrum børnum þar af; og láted ydar børn segia þad sínum børnum, og þau børnenn þeirra ødrum epterkomendum þad.

4. Sem er þetta, þad sem kálormurenn leifer, þad uppeta eingespretturnar, enn þad sem eingespretturnar epter skilia, þad eta grasormarner, og þad sem grasormarner leifa, þad eta kornormarner.

5. Vaked upp þer druckner, og gráted og kveined aller vínsvelgiarar, vegna þess nya víns, þvi þad er burtteked frá ydrum munne.

6. Þviad upp í mitt land ferdast eitt megtugt fólk, og otelianlegt, þad sem hefir tennur sem león, og iaxla sem leonsinnur.

7. Þad sama eydeleggur mína víngarda, og sker børkenn af mínum fíkiutriám, og skefur þad, og burtkastar þvi, so þess kvistar standa hviter á þvi.

8. Wp þú sem ein jungfru, sú ed seck tekur á sig, sakum síns brudguma.

9. Þvi matoffur og drickiaroffur er burt frá Drottins húse, og prestarner Herrans Þenarar syrgia.

10. Markurnar eru í eyde, og akrarner standa aumlega; korned er fordiarfad, víned stendur sár grætelega, enn vidsmøred aum kunarlega.

11. Akurverks mennerner eru hormuleger á ad líta, og víngardsmennerner yla vegna hveitis og byggs, ad af haustsæsnudenum a mørkenne vardur eigi.

12. So stendur nu víntred og so aumlega, og fíkiutred sorglega, so og granatatred, palmvidartred, epiatred, og øll tre á vøllunum eru visnud, Þvi mannanna glede er ordenn ad sorg.

13. Umgyrded ydur, og syrged Þer prestar. Æyed Þer alltaresins Þenarar. Ganged Þer míns Guds Þenarar inn, og fæted ydur í sicke; Þvi bæde matoffur og drickiaroffred er burt af ydar Guds húse.

14. Helged eina føstu, og kalled samann almugann, safned samann øldungunum, og øllum landsins innbyggiurum, í Drottins ydars Guds húse, og kalled til Drottins.

15. O vei Þeim deige! Þviad sá dagur Drottins er í nánd, og kemur sem ein fordiørfun frá Þeim almattuga.

16. Þá skal maturenn burttakest fyrer vorum augum, og so gledenn og skemtunenn af vors Guds húse.

17. Sáded er rotnad under jardunne, kornhúsenn standa aud, og kornhløđurnar eru hrapadar, Þviad korned er fordiarfad.

18. O hversu peningurenn stynur, og uxarner eru aumleger ásyndar, Þvi Þeir hafa ecke fódur. Og sauderner vanmegnast!

19. Drottenn! Þig ákalla eg, Þvi elldurenn hefir uppbrennt haglanded á eydemørkenne, og logenn hefir uppkiendrad øll tre á akrenum.

20. Villudyrenn hrópa og til Þín, Þvi ad vatnslækerner eru uppÞornader, og elldurenn hefir uppbrennt grashagann í eydemørkenne.

## 2. Capitule.

1. Bláſed med básunum í Zion, hróped á mínu heilogu fialle. Skiálfed aller innbyggiarar landsins, Þvi dagur Drottins kemur, og er í nánd!

2. Einn myrkur dagur, einn dymmur dagur, einn Þickmikell dagur, einn Þokudagur, líka sem einn morgunrode útbreider sig yfer fiøllinn, sem er eitt stórt og megtugt fólk, hvers líke fyrr hefir alldrei vered, og eigi her epter vera skal, til eylífrar tídar, æ og ætíd.

3. Þar gengur undann hønum einn eydande elldur, og epter hønum brennande loge, landed er fyrer hønum sem einn lystugur alldingardur. Enn á bak hønum sem ein óbyggd eydemørk, og enginn skal sleppa hiá hønum.

4 Þei eru Þvilíkaster ad siá sem hestar, og renna sem riddarar.

5. Þeir stocka upp á fiøllunum, líka sem Þá vagnar hurra, og sem loge snarkar í halme, so sem eitt megtugt fólk, Þad til bardaga er búed.

6. Fólked mun kvída fyrer hønum, øll andlit eru so bleik sem leirpottar.

7. Þeir skulu hlaupa sem rísar, og stíga á múrenn sem stridsmenn, sérhver einn skal beint framm hlaupa sín veg, og eigi af sér stíga.

8. Einginn mun annann villa,

helldur-skal hver frammfara í sinne fylkingu. Þeir skulu brióstast framm igegnum vopnenn, og eigi sárer verda.

9. Þeir skulu ríða umkring í stødunum, hlaupa á múrenn, og innstiga í húsenn, og smiuga igegnum vindaugunn sem þiófur.

10. Landed skeifur fyrer honum, og himenenn bifast, solenn og tungled verdur myrkt, og stiørnurnar inne halda sinu skine.

11. Þviad Drottinn skal láta sínar reidarþrumur frammganga fyrer sínnm her, þvi hans her er miøg stór og megtugur, hver ed frammkvæma skal hans bifalníng, þviad Herrans dagur er stór og miøg ognarlegur, hver mun kunna ad lída hann?

12. So segernú Drottinn: snúed ydur til min af øllu hiarta, med føstum, med gráte, med kveine.

13. Rífed ydar hiørtu, enn eigi ydar klæde, og snúed ydur til Drottins ydars Guds, þvi hann er nádugur, miskunsamur, þolennmódur, og stórrar gædsku, og snarlega idrar hann straffsins.

14. Hver veit, þad kann ad idra hann aptur, og láta eina blessan blífa epter sig, til ad offra matoffur, og dryckiaroffar fyrer Drottne ydar Gude.

15. Blásed med basunum þer í Zion, helged eina føstu, kallad almúgann tilsamans!

16. Samansafned fólkenu, helged almúgann, safned øllðungunum tilsamans, komed ungum børnum og briøstmylkingum tilsamans, brúdgumenn gange af sínu herberge, og brúdurenn af sínu brúdar húse.

17. Láted prestana, Drottins þenara, gráta á millum lopthúsens og alltaresins, og segia: Drottinn! Þorm þú þínu fólke, og lát þína arfleifd eigi verda til smánar, so ad heidingiar drottne yfer þeim, hvar fyrer vill þú láta segia á medal þióðanna? hvar er nú þeirra Gud?

18. So mun þá Drottinn vandláta um sitt land, og hlífa sínu fólke.

19. Og Drottinn mun svara og segia til síns fólks: Siáed! eg vil yfersliotanlega senda ydur korn, vín og vidsmiør, so þer skulud hafa nóg þar af. Og eg vil láta ydur ei lengur verda til smánar medal heidingianna.

20. Og eg vil burtreka þá af nordrenu langt burt frá ydur, og kasta þeim í eitt þurrt og eyde land, sem er, hans ansiit ut til hafsins í austur, og hans enda til hins ytsta hafs. Hann skal fúna, og illa lyckta, þvi hann hefir gert stóra hlute.

21. Ottast þú eigi elskulega lend, heldur ver þú gladvært, og med gódu gede, þvi Drottinn kann ad gera mikla hlute.

22. Ottest eigi þer dyrenn á mørkenne, þvi bygdernar í eydemørkenne skulu grænkast, og eykurnar skulu færa sinn ávext, og fíkiutren og víntren skulu vel ávaxtast.

23. Og þer Zions børn, gleded ydur og fagned í Drottne ydrum Gude, hver ydur gefir kennefedur til réttlætis, og ydur sender sfann morgunregn, og kvøllðskúra, so sem fyrr meir.

24. So ad hlødurnar fyllist med korn, og vínpressurnar skulu hafa yfersliotanlega víne og oleum.

25. Og eg vil ydur þau árenn endurgialda, hver ed eingesprettnrnar, treormarner, og adrer vonder ormar, og kálormarner (sem

var minn stóre her, hvern eg sende á medal ydar) hafa uppeted.

26. So þer skulud hafa nóg ad eta, og gøfga Drottins ydars Guds nafn, sá ed dásamlega hlute hefir gjørt ydar á medal, og mitt fólk skal ei leingur til skammar verda.

27. Og þer skulud reyna, ad eg em midt á medal Israels, og ad eg em Drottinn ydar Gud, enn einginn annar, og mitt fólk skal eigi leingur ad skømm verda.

28. Og epter þad vil eg úthella mínum anda yfer allt hold, og ydrir syner og dætur skulu spá, ydrir øldungar skulu sjá, ydrir øldungar skulu drauma hafa, og ydar ungbørn skulu sjóner sjá.

29. Og á þeirre sømu tíd, vil eg utausa mínum anda, bæde yfer þræla og ambátter.

30. Og eg vil gefa furdanleg teikn á himne og jørdu, sem er, blód, elld, og reykarsvælu.

31. Solenn skal snúast í myrkur, og túngled í blód, ádur enn kemur sá mikle og ognarlege dagur Drottins.

32. Og þad skal ske, ad hver sem ákallar nafn Drottins, hann skal hólpenn verda. Þviad uppá Zions fjalle, og í Jerusalem, skal ein frelsun vera, so sem Drottinn hefir fyrerheited, og so hiá þeim ødrum sem epter eru ordner, hveria Drottinn mun kalla.

## 3. Capitule.

1. Því sjá þér! á þeim døgum og þeirre sømu tíd, þá eg mun snúa Juda og Jerusalems herleidingu,

2. Þá vil eg safna tilsamans øllum heidingium, og eg vil færa þá ofann í dalenn Josaphat. Og þar vil eg ganga í rett vid þá vegna Israels minnar arfleifdar, ad þeir hafa dreift þeim á medal heidingia, og skipt ser mínu lande.

3. Og kastad hlutum um mitt fólk, og gáfu þá enu ungu sveina fyrer mat, og selldu píkurnar fyrer vín, og drucku þad út.

4. Og þer af Tyr og Zidon, og øll takmørk Philistei lands, hvad hafed þer ad gera med mig? viled þer og stara ydur á móte mer? nú vel! stæred þer ydur á móte mer, þá vil eg og snarlega bitala ydur þad í stadenn yfer ydart høfud.

5. Þer sem hafed teked mitt silur og gull, og mínar kostulegar gáfur, og fært þad í ydrar kyrkiur.

6. Og þar til hafed þer sellt Juda og Jerusalems børn, þeim í Gricklande, so ad þer mættud koma þeim langt frá þeirra landamerkiunum.

7. Sjáed! eg vil uppvekia þá af þeim stad sem þer selldud þá, og eg vil bitala ydur yfer ydart høfud þad sama.

8. Og eg vil selia ydra syne og dætur aptur í stadenn, fyrer Juda børn, þau skulu þeir selia þeim í ríke Arabia, þvi fólke sem byr í fiarlægu lande, því Drottinn hefir þetta talad.

9. Gøred þad heyrum kunnugt, á medal heidingianna; helged eitt stríd; uppveked þá sterku; láted allt strídsfólked koma hingad og ferdast her upp.

10. Gøred sverd af ydrum plógjárnum, og spiot af ydrum sigdum, sá hinn veike sege, eg em sterkur.

11. Safned ydur samann, og komed hingad aller heidingiar allt umkring, og heimtest samann, þar skal Drottinn vid velle leggia þínar kempur!

12. Heidingiar skulu búa sig, og koma upp í dalenn Josaphat,

þvi þar vil eg sitia og dæma alla
heidingia allt umkring.
13. Sláed med sigdunum, þvi
kornskeranu er fullvaxenn; komed
her nidur, þvi vínpressann er full,
og út af vínpressunne flytur, þvi
þeirra illska er stór.
14. Fólked skal flockum saman
vera, her og hvar, í Dómsdalnum,
þvi Drottins dagur er nálægur í
Dómsens dal.
15. Solenn og tungled munu
formyrkast, og stiørnurnar skulu
sitt skine inne hallda.
16. Og Drottinn skal øskra af
Zion, og láta sína rødd heyrast af
Jerusalem, so himenenn og jørd-
enn mun bifast. Enn Drottinn
skal vera athvarf síns fólks, og
Israels børnum einn fastur stadur.
17. Og þer skulud merkia þad,
ad eg Drottinn ydar Gud í Zion,
by á mínu heiløgu fialle, þá skal
Jerusalem vera heiløg, og eing-
enn framande skal reisa þadann
frá ígegnum hana.
18. Á þeim tíma skulu fiøllenn
driúpa af sætu víne, og hædernar
flióta med miolk, og aller lækier
í Juda, skulu renna fuller af vat-
ne, og þar skal einn brunnur út-
ganga af húse Drottins, hver ed
vøkna skal sittim straum.
19. Enn Egyptaland skal í eyd-
de vera, og Edom ein óbyggd eydi-
mørk, søkum þess yfergangs sem
þeir gerdu Juda børnum, ad þeir
úthelltu saklausu blóde í þeirra
lande.
20. Enn Juda skal vera byggd
æfennlega, og Jerusalem um alld-
ur og ad eylífu.
21. Og eg vil eigi láta óhefnt
vera ydars blóds. Og Drottinn
mun búa í Zion.

Ender Prophetans Joelis.

# Prophetenn Amos.

## 1. Capitule.

1. Þetta er þad sem Amos, hver
ed var á medal hyrdaranna í The-
koa, hefir sed yfer Israel, í tíd Usia
Juda konungs, og Jerobeams, Jo-
as sonar, Israels konungs, tveim
árum fyrer jardskiálftann.
2. Og hann sagde: Drottinn
mun øskra af Zion, og láta heyra
sína raust af Jerúsalem, so ad
haglende hyrdaranna skal aumlega
standa, og Carmel skal ad ofann-
verdu uppvisna.
3. Só seger Drottinn: fyrer søk
um þriggia og fiøgra synda Da-
masci, vil eg ei vægia henne, þviad
þeir hafa þreskt Gilead med járn-
staungum.
4. Enn eg vil senda elld í Ha-
saels hús, og hann skal uppeyda
BenHadads høllu.
5. Og eg vil sundurbrióta steing-
urnar í Damasco, og uppræta
innbyggiurum frá dalnum Aven, á-
samt þeim sem á ríkes sprota held-
ur, af lystehúsenu, so ad fólked af
Syria skal burtfærast í Kir, seger
Drottinn.
6. So seger Drottinn: søkum
þriggia og fiøgra synda Gasa, vil
eg eigi hlífa henne, af þvi ad þeir
hafa ad nyu fangarann til fanga
teked, og átreked í land Edoms.

7. Helldur vil eg senda einn elld í murerna til Gasa, hver ed eyda skal hennar høllum.

8. Og eg vil uppklippa innbyggiurunum af Asdod, med þeim sem helldur á rikisspotanum í Ascalon, og eg vil snúa minne hende móte Akron, so þad skal drepast sem enn er epter orded, af þeim Philisteis, seger Drottinn Drottinn.

9. So seger Drottinn: søkum þriggia og fiøgra synda borgarennar Zor, þá vil eg henne eigi hlífa, af þvi, ad þeir ráku og drifu fangarana framm leingra í Edoms land, og þeinktu eigi uppá sáttmála brædranna.

10. Helldur vil eg senda einn elld í Zor múra, hver ed eyda skal hennar høllum.

11. So seger Drottinn: søkum þriggia og fiøgra Edoms synda, þá vil eg eigi spara hann, af þvi hann offsokte sinn brodur med sverde, og ábeiskló þær óléttu, og sundurreif þá æ tíd med sinne reide, og helldur æfenlega á sinne grimd.

12. Helldur vil eg senda einn elld í Theman, hann skal eyda herbergiunum í Bazra.

13. So seger Drottinn: fyrer søkum þriggia og fiøgra synda þeirra Ammons barna, vil eg eigi hlífa þeim, þvi þeir sundurslíta þær óléttu í Gilead, hvar med þeir gør du sín landamerke vidare,

14. Helldur vil eg uppkveikia einn elld á Rabba múrum, hann skal upp eyda þeirra herbergium, nær menn kalla á þeim strídstíma, og nær sé vindur kemur í þeirre stormvid,

15. Þá skal þeirra konungur med sinum høfdingum særast fáng enn burt, seger Drottinn.

16. So seger Drottinn: fyrer søkum þriggia og fiøgra Moabs synda, vil eg eigi hlífa þeim, þvi þeir brenndu upp konungsins bein af Edom til øsku.

17. Helldur vil eg senda einn elld í Moab, hann skal upp eyda Kirioths høll, og Moab skal deya í herope, og ludra þyt.

18. Og eg vil uppricka domendunum á medal þeirra, og alla hans høfdingia med hønum drepa, seger Drottinn.

## 2. Capitule.

1. So seger Drottinn: søkum þriggia og fiøgra Juda synda, vil eg eigi hlífa hønum, fyrer þad þeir forsmá løgmál Drottins, og hallda eigi hans rettinde, og láta sínar lygar villa sig, hverum þeirra fedur eptersylgdu.

2. Helldur vil eg skicka einn elld í Juda, hann skal uppbrenna hallernar í Jerusalem.

3. So seger Drottinn: søkum þriggia og fiøgra synda Israels, vil eg eigi hlífa þeim. Þvi þeir selia þann rettláta fyrer peninga, og þá fátæku fyrer eitt par skó.

4. Þeir troda høfud fátækra í saurenn, og hamla vegum hinna voludu. Sonurenn og faderenn liggia hiá einnre stúlku, med hveru þeir vanhelga mitt heilaga nafn.

5. Og þeir leggia sig upp á pantsett klæde, fyrer øllum ølturum, og drecka vín í þeirra Guda húsum, frá þeim sem straffader eru.

6. Nú hefe eg þó afmád þann Amorita fyrer þeim, hver so hár var sem cedrus, og hans magt sem eykeetre, og eg afmáde hans ávøxt, frá efapn verdu, og hans rót ad nedann.

7. Og eg færde ydur af Egyptalande, og leidde ydur í eydemørk-

enne í fiórutíu ár, so þer skylldud eignast þad land þeirra Amorita.

8. Og eg uppvakte propheta af ydrum bornum, og þá Nazarenos af ydrum ungum sveinum, þer Israels born! er þad eigi so? seger Drottinn.

9. So gefed þer þeim Nazareis vín ad drecka, og biodeð prophetunum, og segeð: þer skulud eigi spá.

10. Siá þá! eg vil gera eitt hrygdt under ydur, líka sem þá einn vagn fullur af byndenum hrycker.

11. Ad sá sem er fliótur skal eigi undann flya, og hinn sem er sterkur skal eigi par megna, og sá hinn megtuge skal eigi sínu life fordad geta.

12. Og boga skytturnar skulu eigi vid standast, og sá sem hradt kann ad hlaupa, hann skal eigi umhlaupast, og sá sem rídur skal eigi biarga sínu life.

13. Og sá sem er karlmennskumestur, á medal sterkra, skal hlióta ad flya nakenn á þeim tíma, seger Drottinn.

## 3. Capitule.

1. Þer Israels born! heyred hvad Drottinn talar vid ydur, sem er, vid allar þær ætter sem eg útfærde af Egyptalande, og segde:

2. Eg hefe einungis þeckt ydur af ollum kynslódum á jordunne, þar fyrer vil eg og heim vitia ydar, søkum allra ydra misgerninga.

3. Kunna nockud tveir ad ganga tilsamans, utan þeir sieu samþycker sín á millum?

4. Oskrar nockud Leoned í skógenum, ef þad hefir enga brád? greniar nockud eitt ungt Leon í sínu inne, utann þad hafe nockud feinged?

5. Fellur nockud fugl í snoruna á morkenne, þar sem eingenn er fugla fangarenn? tekur og nockud madur snoruna upp frá jordunne, hafe hann eigi par veidt?

6. Blæs nockur í ludur innann stadar, ad fólkenu felmtre eigi? eda þar nockur ólucka í stadnum sem Drottinn gerer eigi?

7. Þvi Drottinn Drottinn gerer ecke, utann hann opinberere sinn leyndardóm fyrer prophetunum, sínum þenurum.

8. Leoned oskrar, hver skyllde eigi óttast? Drottinn, Drottinn talar, hver skyllde eigi spá?

9. Kunngered þad í hollunum til Asdod, og þeim í hollum Egyptalands, og segeð: heimkomst saman uppá fialled Samarie, og siáeð hvad stórt heróp og óréttur þar er.

10. Þeir akta engann rett, seger Drottinn: þeir safna liggiande fe med órette og ráne, í sínum hollum.

11. Þar fyrer seger Drottinn Drottinn so: menn munu þetta land umkringia á alla vegu, og slíta þig nidur frá þínu magtarvellde, og ræna þín hús.

12. So seger Drottinn: líka sem einn hirder útslítur tvo kne, edur eitt eyra út af munne Leonsins, so skulu og Israels born burtslítast, sem búa í Samario, og hafa sína sæng í hyrningum, og í Damasco eina tre sæng.

13. Heyred og vitned þad í Jacobs húse, seger Drottinn Drottinn: Gud Zebaoth.

14. Þviad á þeim tíma nær eg vil heimsækia Israels synder, þá vil eg vitia alltarisins í Bethel, og afbrióta alltarisins horn, so þau skulu falla til jardar,

15. Og eg vil bæde slá vetrarhús, og sumarhús, og þau filsbei-

nahúsenn skulu forganga, og mörg hús skulu fordiarfast, seger Drottinn.

## 4. Capitule.

1. Heyred þetta ord, þer feiter kyr, sem erud á fiallenu Samarie, og gered rangt naudþurftugum, og undertrodred hina fátæku, og seged til ydra Herra: bered hingad, og láted oss drecka.

2. Sá Drottinn Drottinn hefir svared vid sinn heilagleika: sioed! sá time kemur yfer ydur, ad menn munu útricka ydur med krokum, og ydra epterkomendur med fiskeaunglum.

3. Og þer skulud ganga út gegnum smugurnar, hver beint á framm fyrer sig, og þer skulud burtkastast til Harmon, seger Drottinn.

4. Iá! komed her til Bethel, og fremed synd, og til Gilgal, ad þer gered margar synder, og bered framm ydar offur á morgna, og ydrar tíunder þann þridia dag.

5. Og gered reykelse af súrdeige til þackl eis offurs, og prediked um siálfviliugt offur, og kunngered þad, þvíad þer Israels born viled þad giarnann so hafa, seger Drottinn Drottinn.

6. Þar fyrer hefe eg gefed ydur í ollum ydrum stodum, idiulausar tennur, og brauds skort í ollum ydrum stodum, þó samt og ádur snúed þer ydur eigi til mín, seger Drottinn.

7. Eg hefe einnenn inne halldeb regnenu yfer ydur, so leinge, ad enn voru þrír mánuder til haustvrkiunnar, og eg let rigna yfer þann eina stad, enn yfer þann annann stad let eg ei rigna; einn akurenn feck regn, og sá annar akur sem feck ecke regn, hann þornade upp.

8. Og tveir, þrír stader fóru til eins stadar, ad þeir kynnu vatn ad drecka, og kunnu þad ei nóg ad finna, þó líka samt og ádur snerud þer ydur eigi til mín, seger Drottinn.

9. Eg plágade ydur med þurre tíd, og med brennandu korne, og kálormarner uppátu allt þad sem ox í ydrum alldengardum, víngordum, á vidsmiorstriónum, og fikiutriánum, þó snerud þer ydur eigi til mín, seger Drottinn.

10. Eg sende drepsott á medal ydar, líka sem í Egyptalande, eg ihelsló ydar æskumenn med sverde, og eg let ydra hesta burtfærast herfekna, eg let ólycktena af ydrum herbúdum koma í ydrar naser, þó snerud þer ydur eigi til mín, seger Drottinn.

11. Eg kollvarpade nockorum á medal ydar, so sem Gud kollkastade Sodoma og Gomorra, ad þer vorud líka sem ellbebrandur, úr ellde útdreigenn, þó snerud þer ydur eigi til mín, seger Drottinn.

12. Þvi vil eg so frammveigis gera vid þig Israel, og med þvi eg vil so gera á móte þer, þá bú þig Israel, og mæt þínum Gude.

13. Þvi siá þú! hann er sá sem gerer fiollenn, og skapar vindana, og kenner mannenum, hvad hann skal tala. Hann gerer morgunrodann og myrkred, hann geingur uppá hædum jardarennar, hann heiter Drottinn Gud Zebaoth.

## 5. Capitule.

1. Heyred þetta ord, þer af húse Israels! þvíad eg verd ad gera þessa harmavísu um ydur.

2. Israels jungfrú er fallenn, so hún man eigi upp aptur standa,

Hún er niðurbrunnenn til jarðar, og þar er eingenn sem hiálpe henne á fætur.

3. Því so seger Drottinn Gud: sá stadur, af hverum útganga þúsund, þar skulu ad eins hundrad epter vera: þer sem hundrað ganga út, þar skulu eigi nema tíu epter blífa, í húse Israels.

4. Þar fyrer seger Drottinn til Israels húss: leited min, þá munud þer lifa!

5. Leited eigi til Bethel, og komed eigi til Gilgal, og genged eigi til Berseba, því Gilgal skal herteken burtrekast, og Bethel skal verda Beth Auen.

6. Leited Drottins, þá skulud þer lifa, ad hann eigi sem einn elldur fare inn á Josephs hús ad uppbrenna þad, og þar skal eingenn vera, sem hann kann ad útslöcka fyrer Bethel.

7. Þer sem snúed rettenum í beiskleika, og slaed rettlæted til grunna.

8. Hann gerer sjö stiörnurnar og Orion, sá sem gerer morguninn af myrkrenu, og myrka nótt af deigenum, sá sem kallar vatned af siónum, og úthellir því á jörðena, hann heiter Drottinn.

9. Hver ed eydeleggíng lætur koma yfer þá enu sterku, og kollvarp færer yfer þá enu sterku stade.

10. Enn þeir eru reider vid hann sem straffar þá í portunum, og hallda fyrer svívirding þann sem heilnæmt kenner.

11. Nú sökum þess, ad þer undertroded þá fátæku, og taked korned frá þeim í stórum byrðum, þá skulud þer eigi búa í húsunum, þeim sem þer hafed bygt af höggnum steinum, og eigi hellður drecka þad vín, sem þer hafed plantad í kostulegum víngordum.

12. Þviad eg veit ydrar yfertrodslur sem eru margar, og ydrar syndir sem sterkar eru, hverju þer þreyngjed ad þeim rettlátu, og taked blódgiölld, og underþricked þá enu fátæku í portunum.

13. Þar fyrer hlióta þeir hygnu ad þegia á þeim tíma, því þad er vondur tíme.

14. Leited þess góda, enn eigi hins vonda, so þer meiged lifa, því þá mun Drottinn Gud Zebaoth vera hiá ydur, so sem þer hrósed.

15. Hated þad vonda, enn elsked þad góda, skicked rettenn í stadarportunum, þá mun Drottinn Gud Zebaoth vera miskunsamur yfer þeim sem epter eru orðner af Joseph.

16. Þar fyrer seger Drottinn Gud Zebaoth, sá Drottinn, so: þar skal vera sárgræteleg klögun á öllum strætum, og menn skulu segia á öllum strætum; vei! vei! og menn skulu akurmannenn til sorgar kalla, og til sárgræteligs klögumáls, hvern sem gráta kann.

17. Þar skal vera sár klögun í öllum víngordum, þá eg vil fara medal ydar, seger Drottinn.

18. Vei þeim sem gyrnest dag Drottins! hvad skal hann ydur? því Drottins dagur er eitt myrkur, enn eigi lióss.

19. Líka sem þá madur flýde undann Leone, og biarndyr mætte hönum, og so sem þá nockur kemur í eitt hús, og styður sig med hende vid vegginn, og einn höggormur stíngur hann.

20. Þviad dagur Drottins skal vera myrkur enn eigi lióss, dymmur og eigi biartur.

21. Eg em reidur ydrum helgedögum, og eg forsmáe þá, og eg kann eigi ad lykta í ydare samkundu.

22. Og þó ad þer offred mer brenneoffrum og matarfornum, þá hefe eg þó enga þocknan þar á, so get eg eigi heldur sed til ydars feita þacklætisoffurs.

23. Tak ad eins frá mer þitt psalma bulldur, þvi eg get eigi heyrt þitt psalltara spil.

24. Rettureñ skal openber verda sem vatn, og rettlæted sem strídur straumur.

25. Hafed þer af húse Israels offrad mer slátrunaroffre og matoffre, um þau fióurtíu árenn í eydemørkunne? já vel.

26. Þer bárud Sichuth ydrann konung, og Chion ydart bílæte, þá stiørnu ydarra afguda, sem þer siálfer gerdud ydur.

27. So vil eg láta færa ydur hedan, burt til Damascum, seger Drottinn: sem heiter Gud Zebaoth.

# 6. Capitule.

1. Vei þeim dramsømu í Zion! og þeim sem treysta uppá fialled Samariæ, þeir sem hallda sig enu ypparstu yfer heidingium, til hverra Israels hús er komed.

2. Ganged burt til Kalne, og skoded, og þadann til Hemath þess stora stadar, og ganged ofann til Gath þeirra Philistea, sem vered hafa betre konungaríke enn þesse, og þeirra landamerke voru stærre enn ydar landamerke.

3. Þer sem hygged ydur vera lángt frá þeim vonda deige, og sæked alltíd epter ofbelldis ríkis stiorn.

4. Og sofed á legurume af fílabeinum, og hafed ofmiked vid ydar sængur, þer eted lømbenn af hiørdenne, og þá øldu kálfana.

5. Og spiled upp í psalltara, og dicted ydur psalma sem David.

6. Og drecked vín af skálum, og smyred ydur med balsame, og harmed eigi par vegna Josephs skada.

7. Þvi skulu þeir nú fyrst undann ganga, á medal þeirra sem fangner eru burtleidder, og dramlofneytislunnar skal afleggiast.

8. Þvi Drottinn Drottinn hefir svared vid sína sál, seger Drottinn Gud Zebaoth: mer er leid drambseme Jacobs, og eg em reidur þeirra høllum, og eg vil yfergefa stadenn, og allt þad sem er í þorum.

9. Og þó þar se epter tíu menn í einu húse, skulu þeir líka vel deya.

10. Og hver skal taka sinn fødurbrodur og sinn módurbrodur, og bera þeirra bein af húsunum, og segia til þeirra sem eru í húskimunum, erud þer enn nú lifande her? og þeir skulu svara, aller eru þeir burt, og hann skal segia: ver þú til fridar! þvi þeir villdu eigi ad menn skylldu hugsa uppá nafned Drottins.

11. Þvi siá þú! Drottinn hefir bodid, ad menn skylldu slá þau storu húsenn, so þau rifne, og þau litlu husenn, so þau trosne.

12. Hver kann hestenum á skeid ad hleypa, edur ad eria med uxanum uppá steinunum? þvi þer snúed logarettenum í Gall, og rettlætesins ávexte í malurt.

13. Og þer hugged ydur þar vid, sem alldeilis er ecke, og seged: erum ver eigi sterker nog med vorum hornum?

14. Þar fyrer siáed! eg vil uppvekia eitt fólk yfer ydur af Israels húse, seger Drottinn Gud Zebaoth, þad skal naudga ydur af þeim stad sem menn ganga til Hemath, allt til lækiarens í eydemørkenne.

## 7. Capitule.

1. Drottinn Drottinn vísade mer eina syn, og sia þú! þar stod einn sem gerde eingespretturí uppsase, þegar grodurenn upp kom, og siá, þad græna stod, epter þad ad konungurenn hafde láted slá pa sina saude.

2. Og þá þær villdu nú med ollu urternar uppeta í landenu, þá sagde eg: ó Drottinn Drottinn! ver þú nádugur. hver vill hialpa Jacob upp apturk þvi hann er mieg litell.

3. Þá idrade Drottinn þess, og sagde: nú vel! þad skal eigi ske.

4. Drottinn Drottinn synde mer eina syn, og siá þú! ad Drottinn Drottinn kallade elldenn, til ad straffa med honum, ad hann skyllde fortæra eitt stort diup, og hann át allareidu einn part þar af.

5. Þá sagde eg: ó Drottinn Drottinn! lát af, hver will hialpa Jacob upp aptur? þvi hann er ad sonnu litell.

6. Þá angrade Drottinn þad, og Drottinn Drottinn sagde: þad skal og eigi ske.

7. Enn hann vísade mer þessa syn, og siá þú! Drottinn hann stód uppá einum múr, sem var mælltur med einum mælesnære, og hann hafde þann mælesnád í sinne hende.

8. Og Drottinn sagde til mín: hvad ser þú Amos? eg svarade: einn mælesnád. Þá sagde Drottinn til mín: siá þú! eg vil draga einn mælesnád mitt í gegnum mitt fólk Israel, og eg vil eigi framar siá vfer med honum.

9. Helldur skulu Isaacs hæder í eyde leggiast og Israels kyrkiur skulu niturbriótast, og eg vil til reida mig móte Jeroboams húse med sverde.

10. Þá sende Amasia prestur í Bethel, til Jeroboams, Israels konungs, og let segia honum, Amos gerer eitt upphlaup móte þer í Israels húse, landed kann ei ad lida hans ord.

11. Þvi so seger Amos, Jeroboam skal deya fyrer sverde, og Israel skal herteken burtflytiast af sinu lande.

12. Og Amasia sagde til Amos: þú siáande! far burt, og fly þú í land Judá, et þar braud, og spá þar,

13. Enn spá þú eigi framarmeir í Bethel, þvi her er konungsins helgedómur, og hans konunglega hús.

14. Amos svarade og sagde til Amasia: eg em eingenn prophete, og einskis propheta sónur, helldur em eg einn kúa hyrder, hver ed saman safnar morberium.

15. Enn Drottinn tók mig frá hiordenne, og sagde til mín: far burt, og spá þú mínu fólke Israel!

16. So heyr þú nú ord Drottins; þú seger: spá þú eigi imóte Israel, og lát eigi driupa móte húse Isaacs.

17. Þar fyrer seger Drottinn so: þín eigenn kona skal verda ad einnre hóru í stadnum, og þiner syner og dætur skulu falla fyrer sverde, og þinn akur skal útskiptast med v. d, enn þú skallt deya í einu óhreinu lande, og Israel skal burtrekast ur sínu lande.

## 8. Capitule.

1. Drottinn Drottinn vísade mer eina syn og siá þú! þar stod ein korf med sumar ávexte.

2. Og hann sagde: hvad ser þú Amos? enn eg svarade: eina korf

med sumarávextt, þá sagde Drottinn til mín: endenn er komenn yfer mitt fólk Israel, eg vil nú ei leingur hlífa þeim.

3. Og saungurenn í þeirra Kyrkium skal snúast í grát: á þeim sama tíma, seger Drottinn Drottinn, skal þar liggia allstadar margur daudur líkame, hveria menn skulu leynelega burt bera.

4. Heyred þetta þer sem underþricked þá fátæku, og fordiarfed þá aumu í landenu.

5. Og seged: nær vill sá nye mánaudurenn fá enda, so ver meigum selia korned, og sabbathsdagurenn, ad ver mættum láta korned falt, og gera mælerenn minne, og verta giallded, enn falsa vicktena?

6. So ver mættum koma þeim fátæku under oss fyrer peninga, og þeim naudþurftuga fyrer eina skó, og selia agner fyrer korn.

7. Drottinn hefir svared ímóte Jacobs drambseme: hvad gillder, ef eg skal gleyma soddan þeirra gerningum æfenlega?

8. Skylde nú eigi landed bifast fyrer soddann efne, og aller innbyggiarar sorga? já! þad skál alltsaman yferhlauped verda so sem med vatne, og burtfærast, og yferhyliast so sem med flodenu í Egyptalande.

9. Á þeirre sömu tíd, seger Drottinn Drottinn: vil eg láta solena nidurganga um middagenn, og láta landed verda myrkt á liósum deige.

10. Eg vil snúa ydrum helgedögum í hriggd, og öllum ydrum vísum í sorgar grát, eg vil færa sekke yfer allar lendar, og gera öll höfud sköllott, og eg vil senda einn grát yfer þá, líka sem menn hafa yfer einum einkasyne, og þeir skulu fá einn hriggelegann enda.

11. Siá þú! tímenn kemur, seger Drottinn Drottinn: ad eg vil senda húngur í landed, eigi húngur epter braude, edur þorsta epter vatne, helldur epter því ad heyra ord Drottins.

12. Ad þeir skulu hlaupa hingad og þangad, frá einu hafenu til annars, frá nordrenu og til austurs, og leita epter orde Drottins, og finne þad þó ei.

13. Á þeim tíma skulu fagrar jomfrúr, og ungir sveinar vanmegnast af þorsta.

14. Þeir ed nú sveria vid bölvan Samarie, og segia: so sannarlega sem þinn Gud í Dan lifer, so sannarlega sem sú skickan lifer, í Berseba. Því þeir skulu so falla, ad þeir skulu eigi kunna upp aptur ad standa.

## 9. Capitule.

1. Eg sá Drottinn standa uppá alltarenu, og hann sagde: slá þú uppá þad efsta dyratred, so ad stólparner bifest, þviad þeirra ágyrnd skal koma yfer alla þeirra höfud, og eg vil eptersslá þeirra epterkomendur med sverde, so eingenn skal undann flýa, edur nockur einn þar undann komast.

2. Og þó þeir græfu sig nidur í helvíte, þá skal þó mín hönd færa þá þadann, eda þó þeir færu upp í himenenn, þá vil eg líka vel slá þá nidur þadann.

3. Og þó þeir fele sig uppá fiallenu Carmel, þá vil eg líka vel leita þar epter þeim, og sækia þá þadann, og þó þeir geymdu sig fyrer mínum augum á marar botne, þá vil eg þó bifala höggormunum ad þeir skule stinga þá þar.

4. Og þó þeir geingu fangader burt frá sínum óvinum, þa vil eg þó bifala sverdenu, ad þad skal

myrda þá þar. Þvi eg vil hallda mínum augum yfer þeim til ólucku, enn eigi til góda.

5. Þvi Drottinn Drottinn Zebaoth er slíkur, ad næred hann áhrærer eitt land, þá brádnar þad, so ad aller innbyggiararner hlióta ad sorga, ad þad mun allt falla yfer þá sem vatn, og yfer þá flióta sem vatnsflóded í Egyptalande.

6. Hann er sa sem bygger sinn sal í himnenum, og grundvallar sína tialldbúd á jørdunne, hann kallar vatned í siónum, og úthellet þvi á jørdena, hann heiter Drottinn.

7. Erud þer Israels børn! eigi ólíka vid mig, sem blámenn, seger Drottinn? hefe eg eigi sært Israel af Egyptalande, og þá Philisteos af Caphthor, og þá Syrlendsku af Kir.

8. Siá þú! augu Drottins Drottins líta uppa eitt syndugt konungsríke, ad eg skal þad med øllu afmá af jardríke, enn þó vil eg ei mad øllu afmá Jacobs hús, seger Drottinn.

9. Enn siá þú þó! eg vil befala, og láta sickta Israels hús á medal allra heidingia, so sem menn sickta med sálldre, og þau smá kornenn skulu eigi falla á jørdena.

10. Aller syndarar á medal míns folks skulu deya fyrer sverde, þeir sem segia: ólucken mun eigi vera oss so nærre, og eigi helldur mæta oss.

11. A þeim sama tíma vil eg upp aptur retta þá nidurfallna tialldbúd Davids, og uppbyggia hennar nidurbrotna vegge, og uppreisa þad aptur sem af er broted, og eg vil uppbyggia hana aptur, so sem hún var ádur í fyrre tíd.

12. Uppá þad þeir eigneft þá efterlátnu í Edom, og þá efterlátnu á medal allra heidingia, hverum mitt nafn predikast, seger Drottinn, sem sodan gerer.

13. Siá þú! sú tíd skal koma, seger Drottinn, ad menn skulu un[illegible]r eins eria og upp[illegible]ra, og undeins vínberenn spreingia og sá, og af fiøllunum mun drúpa sætt vín, og allar hæder skulu frioósamar vera.

14. Þviad eg vil umsnúa fangelse míns folks Israels, ad þeir skulu uppbyggia þá eydestadena, og búa þar, planta víngarda, og drecka vín af þeim, gera allding arda, og eta ávøxt þar af.

15. Þviad eg vil planta þá í þeirra lande, so þeir skulu eigi meir uppriciast af þeirra lande, hvert eg vil gefa þeim, seger Drottinn Gud þinn.

Ender Prophetans Amos.

# Prophetenn Abdias.

## 1. Capitule.

1. Þetta er Abdie siónn so seger Drottinn Drottinn af Edom. Ver høfum heyrt af Drottne, ad þar skal út sendur einn bodskapur á medal heidingianna: risum upp, og látum oss strída á móte henne!

2. Siá! eg hefi þig lítenn gert á medal heidingianna, og miøg fyrerlitenn.

3. Drambseme þíns hiarta hefir svikeð þig, af þvi þú bióst í fiallaklofum, í þínum háfum sletum, og seger í þínu hiarta: hver vill mer hrinda í grunn!

4. Og þó þú færer þig so hátt upp i hæderner sem ørn, og gerder þitt hreidur á millum stiarnanna, samt þá vil eg kollvarpa þer nidur þadann, seger Drottinn.

5. Þá ed þiofar og ræningiar falla yfer þig, á náttarþele, hvernenn mun þu þá ad engu verda? já, þeir skulu nóg stela, og nær þeir vínberialesarar koma yfer þig, þá skulu þeir eigi þar epter hiá þer láta, þad þú geter epter lesed.

6. Hverslu þeir skulu þá rannsaka Esau, og leita epter hans fiársiodum?

7. Aller þeir sem sambunded hafa vid þig, munu þig af landenu reka, og þad fólked sem þú treyster uppá, skal þig svikia, og yferfalla, og þeir sem eta þitt braud, skulu þig forráda, ádur þú veitst þad.

8. Hvad gillder? seger Drottinn, eg vil á þeim tíma gera vísendamennena i Edom til einskis, og hyggendenn á fiallenu Esau.

9. Þviad þiner stercku i Theman skulu ørvæntast, so ad þeir skulu aller med morde upprætter verda uppá Esaus fialle.

10. Sokum þeirra ófrikes sem þú gerder þinum brodur Jacob.

11. A þeim tima sem þú stodst á móte honum, og þá þeir annarlegu burt færdu hans her fangadann, og þeir utlendsku fóru inn um hans borgarhlid, og logdu hlute yfer Jerusalem, þá varstu lika sem einn af þeim, þar fyrer skallt þú verda til allrar skammar, og vera upprættur æfenniega.

12. Þu skallt eigi framar meir siá so þina lyst á þinum brodur, i hans eymdartíd, og þú skallt eigi gledia þig yfer Juda bornum, á þeirra motgangstid. Og þu skallt eigi tala so dramblsamlega med þinum munne, i þeirra hriggdartid.

13. Þú skallt eigi innfara um borgarhlidenn mins fólks, á þeirra eymdartímam, þú skallt eigi siá lyst þina, á þeirra ófórum i þeirra sorgartíd, þú skallt eigi senda móte hans herlide, i hans motgangstid.

14. Þú skallt eigi standa á gatnamótum, til ad vega þá sem flya fra honum, þú skallt eigi forráda þá sem afgangs eru á hans sorgartíd.

15. Þvi dagur Drottins er nálægur yfer ollum heidingium, lika sem þú hefir gert, so skal þig aptur á móte ske, og so sem þú hefir forþenad, so skal þer lika þad sama i koll koma.

16. Þviad lika sem þer hafed drucked á minu heilogu fialle, so skulu aller heidingiar daglega drecka, ja, þeir skulu af drecka og upsvelgia, so ad þad se so sem þar hafe alldrei neitt verid.

17. Enn þar skulu enn þá nockrer vera frelsader á Zions fialle, og þeir skulu vera einn helgedomur, og Jacobs hús skal þa eignast, sem þa eignudu ser.

18. Og hús Jacobs skal vera einn elldur, og Josephs hús ein loge, enn Esau hús einn halmur, hann skulu þeir upp kveikia, og upp brenna, so ad þar skal ecke epter vera af Esau húse, þvi Drottinn hefir þad talad.

19. Og þeir imóte sudrenu skulu eignast fiallbyggder Esau, og þeir sem i dolunum eru, skulu eignast Philisteos, ja, þeir skulu eiga Ephraims merkur, og Samarie grund, og Ben Jamin Gileads fiall.

20. Og þeir útreknu af her Jsraels barna, hverer ad eru á medal

Cananeos, allt til Zarpat, og þeir útreknu af stadnum Jerusalem, sem ad eru af Sepharat, þeir skulu eignast þá stadena imóte sudre.

21. Og frelsarar skulu koma uppá fialled Zion, ad dæma Esau fiallbyggder, so skal kongsríked verda Drottins.

Ender Prophetans Abdias.

# Prophetenn Jonas.

## 1. Capitule.

1. Ord Drottins skede til Jonas Amithai sonar, og sagde:

2. Statt upp og gack í þann stóra stad Ninive, og predika þú í honum! Þviad þeirra illska er uppkomenn fyrer mig.

3. Enn Jonas stod upp, og flyde fyrer Drottne, og villde yfer um siòenn, og hann kom ofan til Japho. Og þa hann fann eitt skip, hvert ed yfer siòenn fara villde, gaf hann flutnings pening, og ste þar uppá, ad hann fære med þeim yfer um siòenn, frá Drottne.

4. Þá let Drottinn koma einn mikenn storm yfer siòenn, og þar vard ofurvedur mikid á siònum, so menn meintu ad skiped munde ísundur brotna.

5. Og skipueriarner voru hrædder, og kolludu hver á sinn Gud, og kostudu farmenum af skipenu í siòenn, so ad þad skyllde lettest. Enn Jonas var geingenn ofann í skiped, la og svaf.

6. Þá geck skipherrann til hans, og sagde: Þvi sefur þú? Stattu upp, kalla þú á þinn Gud, ef verda mætte, ad Gud villde hugsa til vor, so ver eigi forgaungum.

7. Og hver sagde til annars: komed! ver vilium blutast um, so ver mættum vita hvers skulld ed þetta er, ad oss geingur so illa. Og sem þeir blutudust um, þá fell blutfalled yfer Jonam.

8. Þá sógdu þeir til hans: seg þú oss! hvad kemur til þess, ad oss geingur so illa? hvert er þitt erende? og hvadann komst þú? af hveriu lande ert þú? og fra hveriu fólke ert þú?

9. Hann sagde til þeirra: eg em einn Ebreskur madur, og eg ottast Drottinn Gud af himnum, hver ed gerde siò og þurrlende.

10. Þá ottudust mennerner miøg, og sógdu til hans: Þvi hefir þú soddann gert? Þvi þeir vissu, ad hann flúde frá Drottne, af þvi hann hafde sagt þeim þad.

11. Þá sógdu þeir til hans: hvad skulum ver þá gera vid þig, so ad siòrenn mætte stillast fyrer oss? Þviad siòrsiòrenn var ofurlegur.

12. Hann sagde til þeirra: taked mig og kasted mig út í siòenn, so mun kafed sefast, þvi eg veit, ad slíkt stórt óvedur kemur fyrer mínar saker yfer ydur.

13. Og mennerner neyttu orku, so ad þeir kæmust aptur til lands, enn þad gátu þeir eigi, þviad siòrenu olgadest móte þeim.

14. Þá kolludu þeir til Drottins, og sógdu: o Drottinn! lát oss ei fordiarfast fyrer þessa manns sál, og reikna þá oss eigi til saklaust blód, þviad þú Drottinn gerer so sem þer líkst!

15. Og þeir tóku Jonam, og köstudu honum í siöenn, þá stæ-
ſiörenn kirr af ſinne olgu.

16. Og mennerner óttudust Drottinn hardla miog, og færdu Drottne fórner, og áheit.

17. Enn Drottinn ſette til einn ſtórann fiſk ad ſvelgia Jonam, og Jonas var í fiſkſins qvide, þriá daga, og þriár nætur.

## 2. Capitule.

1. Og Jonas bad til Drottins Guds ſins í kvide fiſkſins.

2. Og ſagde; eg kallade til Drottins í minne neyd, og hann ſvarade mer; eg hrópade úr qvide helvítes, og þú heyrder mína rauſt.

3. Þú varpader mer í diúped midt í ſiónum, ſo ad vatnenn um kringdu mig, allar þínar bárur og byſgiur geingu yfer mig.

4. So eg þeinkte, ad eg være burtkaſtadur fra þínum augum, eg munde eigi framar meir ſiá þitt heilaga muſtere.

5. Vatned umkringde mig, allt til míns lífs, diúped gaf ſig kringum mig, þanged bullde mitt höfud.

6. Eg ſöck nidur under til grundvallarſiallanna: jørdenn hafde innelokad mig æfennlega, enn þú Drottinn minn Gud færder mitt líf fra glötunenn!

7. Þá min ſál örvinladeſt medur mer, þá min teſt eg á Drottinn, og min bæn kom til þín í þitt heilagt muſtere.

8. Þeir ſem hallda ſer vid þad ſem einſkis vardt er, þeir forláta þeirra nád.

9. Enn eg vil med þackiæte off ad mitt þéit vil eg Drottne bitala, þar hann mer hiálpad heſir.

10. Og Drottinn ſagde til fiſkſins, og hann ſpió Jona uppá landed.

## 3. Capitule.

1. Og ord Drottins ſkede í annad ſinn til Jonam, og ſagde:

2. Statt þú upp, og gack í þann ſtóra ſtad Ninive, og predika ſyrer þeim þá predikun ſem eg ſeige þer.

3. Þá reis Jonas upp, og geck burt til Ninive, ſo ſem Drottinn hafde ſagt; enn Ninive var einn Guds ſtadur, þriggia dagferda ſtór.

4. Og ſem Jonas tok til ad ganga í ſtadnum, og var komenn eina dagsreiſu, predikade hann, og ſagde: enn nú eru fiørutíu dagar, þá mun Ninive ſorganga!

5. Þá trude ſólked í Ninive á Gud, og létu predika, ad menn ſkylldu faſta, og þeir klæddust ſeckum, bæde ſtorer og ſmáer.

6. Og ſem þetta kom ſyrer konungenn í Ninive, ſtod hann upp af ſínu tignarſæte, og affkrydde ſig ſínum purpura, og ſveipade ſig einum ſeck, og ſettiſt í öſku.

7. Og lett úthrópa, og ſegia í Ninive epter ſkipun konungſins, og hans magtar manna, ſo: þar ſkulu hverke menn ne dyr, ei naut ne ſeuder, nockud ſmacka, og eingenn ſkal þeim nockud ætt geſa, eigi helldur láta þau drecka vatn.

8. Og bæde menn og dyr ſkulu ſveipa ſig ſeckium, og hrópa til Guds ákafliga, og hver ſkal ſnúa ſer frá ſínum vonda veige, og frá illſku ſinna handa.

9. Hver veit! Gud mætte umſnúa ſer, angra þad, og ſnúa ſer frá ſinne grimmre reide, ſo vær fordiørfunſt eigi.

10. Og ſem Gud ſá þeirra verk, ad þeir ſneru ſer frá ſínum vonda veige, angrade hann þad vonda ſem hann hafde ſagt, ad hann villde gera þeim, og giørde þad eigi.

## 4. Capitule.

1. Það mislíkade Jona ofurmiog, og hann varð reidur.

2. Og bad til Drottins og sagde: ó Herra! þetta er það, sem eg sagde: þá eg var ean í mínu lande, hvar fyrer eg villde og so hafa komest undann, ad flya á sióenn, þviad eg veit, ad þú ert nádugur, miskunsamur, þolennmodur, og af mikellre gæsku, og lætur þig angra það vonda.

3. So tak nú Drottinn mína ønd frá mer, þvi eg vil helldur deya enn lifa!

4. Enn Drottinn sagde: hyggur þú, ad þu reidest med rettu?

5. Og Jonas geck út af stadnum, og sette sig til austurs, hiá stadnum, og gerde ser þar eitt hreyse, þar settest hann nidur under skugganum, þangad til hann sæe hvad yfer stadenn munde koma.

6. Og Drottinn Gud let uppvaxa eitt graskar, það vox yfer Jonam, so það gaf skugga yfer hans høfud, og frelsade hann frá þvi sem honum var mein ad, og Jonas gladdest miøg af þvi graskare.

7. Enn Drottinn tilsette einn orm um morgunenn. Þá morgunrodenn kom upp, sá stack graskared, so það upp þornade.

8. Og sem sólenn var upp komenn, sende Gud eitt þurt austanvedur, og solargeislenn skein á høfud Jonas, so hann vard máttlaus. Þá óskade hann sinne sálu dauda, og sagde: eg vil helldur deya enn lifa!

9. Þá sagde Gud til Jonam: hugsar þú, ad þú reidest med rettu, vegna þessa graskarsi? og hann sagde: eg reidest med rettu allt til dauda.

10. Og Drottinn sagde: þú kenner í brioste um graskared, fyrer hveru þú ecke erfidt hafder, og eigi helldur letst þú það vaxa, hvert á einnre nóttu vox, og á einnre nóttu fyrerfórst.

11. Og skyllde eg eigi siá aumur á Ninive' so störum stad, í hverum ad eru meir enn hundrad og tuttugu þusunder manna, hverer enganu greinarmun vita, hvad þid hægra eda vinstra er, og þar med fiølde dyra.

Endar spámannsins Jonas.

# Prophetenn Micheas.

## 1. Capitule.

1. Þetta er það ord Drottins, sem skede til Micheas af Moresa, á døgum Jothams, Achas, Ezechias, Juda konunga, hvad hann sá yfer Samaria og Jerusalem.

2. Heyred allt folk: gef gaum ad þú land, og allt það sem þar inne er! Þviad Drottinn Gud hefir ætlad vid ydur, já! Drottinn af sínu heilögu mustere.

3. Þviad sieed! Drottinn mun útfara af sínu takmarke, og fara ofann, og ganga uppá hæderner í landenu.

4. So ad fiøllenn skulu bródna under honum, og dalerner sundurkloina, lijka sem vox bródnar fyrer elldе, so sem vatn, það sem fellur ofann á móte.

5. Þetta alltsamann fyrer Jacobs yfertrodslu skulld, og sökum synda hússens Israels. Enn hver

er yfertrodsla Jacobs? er þad eigi Samaria? og hverier eru Juda hæder? er þad eigi Jerusalem?

6. Og eg vil gera Samaria ad einnre griotgrúgu í mørkenne, sem menn hlada upp í kringum víngardana, og eg vil draga hennar steina í dalenn, og nidurbriota í grunn,

7. Aller hennar afguder skulu sundurbriótast, og øll hennar hórulaun skulu brennast med ellde, og eg vil í eyde leggia øll hennar bílæte, því ad þau skulu aptur verda ad hórulaunum.

8. Þar yfer hlyt eg ad kveina og veina, eg má ganga rænntur og naktenn, eg má klaga sem drekar, og hyla sem strútsfuglar.

9. Því þar eru eingenn ráð til þeirrar plágu sem komenn er allt ad Juda. Og skal taka allt til míns fólks, til portdyranna í Jerusalem.

10. Kunngered þad þó eigi í Gath; láted eigi heyra ydarn grát, helldur fared í ydar sorgarherberge, og sited í øsku.

11. Þú hinn fagre stadur hlyktur burt med allre skømm! þún sem byr í Zaenan skal eigi útfara, søkum sorgar þeirra næstu húsanna, hann mun taka þad frá ydur, þeg ar hann legzer sig þar.

12. Sá sorgfulle stadur getur eigi huggad sig, því óluckann skal koma frá Drottne; og so inn til portanna í Jerusalem.

13. Þú Lachis stadur! spenn þú fyrer hlauparana, og far þadenn, því þú ert Zions dottur upphaf til syndar, og Israels yfertrodslur eru funnar í þér.

14. Þú munt fangara hlióta gefa, so vel sem Gath. Stadurenn Achsib skal bregdast Israels kongungum.

15. Eg vil færa þann retta erfingia til þín Moresa! og Israels vegsemd skal koma allt til Adullam.

16. Lát af þer raka háred, og gack þú skollott, yfer þínum kæsælegu børnum; ger þú þig med øllu skollotta sem ein ørn, því þeir eru færder fangader frá þer.

## 2. Capitule.

1. Vei þeim sem stunda til ad gera skada, og umgangast med illa hrecke í þeirra legurúmum, so þeir fullgere þad snemma, þegar lióst verdur, því þeir hafa magtena!

2. Þeir slíta akrona til sín, og taka þau hus sem þá gyrner á, so gera þeir ófrike á hvers manns húse, og á hvers manns arfe.

3. Þar fyrer seger Drottinn so: sie þú! eg hugsa þessare kynslód illt, undann hverri þer skulud eigi leida ydra hálsa, og þer skulud eigi ganga so leingur drambsamlega framm, því þad skal verda ein vond tíd.

4. A þeim tíma munu menn gera einn málsþátt um ydur, og klaga. Þad er útgert (munu menn segia) vier erum eydelagder, landed míns fólks fær einn annarlegann Herra! nær skal hann skipta oss þeim økrum aptur, sem hann hefir teked ifrá oss?

5. Já vel! þer skulud engann blut epter hallda í samkundu Drottins.

6. Þeir segia: menn skulu eigi dreypa, því ad soddann dropar koma eigi á oss, eigi munum ver so ad skømm verda.

7. Jacobs hús huggar sig so: meinar þú, ad ande Drottins se útsturer ordenn? skollde hann vilia soddann gera? Þad er satt, mín ræda er godum vinsamleg.

8. Enn mitt folk hefir uppreist sig sem einn óvinur, Þvi Þeir ræna bæde kyrtlum og kápum frá Þeim sem ugglaust ganga framm, líka sem Þeir ed koma úr stríde.

9. Þer strekid mins folks kvinnur, frá Þeirra kærum húsum, og takid alltid mína prýde frá Þeirra börnum.

10. Þar fyrer búed ydur, Þer hlioted burt hedann! Þer skulud eigi vera her: fyrer Þeirra óhreinleika hliota Þeir hardlega ad verda foreydder.

11. Ef eg være einn villu ande, og einn lygaprédikare, og predikade hversu Þeir skylldu drecka og svelgia, Þad være einn predikare fyrer Þetta folk.

12. Enn eg vil Þer Jacob! alldungis tilsamansafna, og tilsamans færa, Það epter er í Jsrael. Eg vil leida Þá tilsamans sem eina hiörd, og láta Þá í einn fastann stall, og líka sem eina hiörd í eitt saudahús, so Þar skal verda nidur af mannmergdenne.

13. Einn sá skal undan Þeim uppfara, sem ígegnum brytst: Þeir skulu briotast framm, og fara ígegnum portenn, út og inn, og Þeirra konungur skal ganga fyrer Þeim, og Drottinn fyrstur undann.

## 3. Capitule.

1. Og eg sagde: heyred Þó Þer hofudenn í Jacobs húse, og Þer höfdingiar í húse Jsraels! Þer skylldud vera med rettu Þeir sem retteun vissu.

2. Enn Þer hated Það góda, og elsked Það vonda; Þer fl. ed húdena af Þeim, og kiøted af Þeirra b:inum.

3. Og eted kiøt míns folks, og Þá Þer hafed dreiged húdena af Þeim, Þá sunndurbriótid Þer og so Þeirra bein, og sunndur hogged Þau, sem í einn pott, og líka sem kiøt í einn ketel.

4. Þar fyrer, nær Þer kalled til Drottins, Þá skal hann eigi bænheyra ydur, helldur skal hann byrgia sitt andlit fyrer ydur, á Þeim sama tíma, so sem Þer hafed forÞent med ydarre vondre breytne.

5. So seger Drottinn á móte Þeim prophetunum, sem villa mitt fólk: Þeir predika, ad Það skule ganga vel, nær menn gefa Þeim nog ad eta. Enn se Þeim ecke í munnenn gefed, Þá predika Þeir: Þer skal koma eitt stríd!

6. Þar fyrer skal ydar sión verda ad nóttu; og ydar spádómur ad myrkre. Solenn skal ganga under yfer Þeim prophetum, og dagurenn skal myrkast yfer Þeim.

7. Og siáendurner skulu ad skomm, og spámennerner skulu ad spotte verda, og aller skulu Þeir byrgia sinn munn, Þvíad Þar mun ecke Guds ord vera.

8. Enn eg em fullur af krapte og anda Drottins, fullur rettar og stirks, so eg Þore ad segia Jacob til sinna misgerda, og Jsrael til sinna synda.

9. So heyred nú Þetta Þer hofudenn í húse Jacobs, og Þer höfdingiar í húse Jsraels, Þer sem forsmáed rettenn, og umsnúed ollu Því sem rett er.

10. Þer sem uppbygged Zion med blóde, og Jerusalem med ranglæte.

11. Hennar höfud dæma fyrer gáfur; hennar prestar kenna fyrer laun, og hennar prophetar spá fyrer peninga. Þeir forl ta sig á Drottinn, og segia: er eigi Drottinn med oss? Þar kann einginn óhlucka ad koma yfer oss.

12. Þar fyrer skal Zion verda plægd sem einn akur, vdar vegna, og Jerusalem skal verda ad steinhrúgu, og fialled musterefins ad einnre eydehæd.

## 4. Capitule.

1. Enn á þeim sídurstu døgum mun þad fialled, á hvøru ed hús Drottins stendur, vissulega hærra vera enn øll fiøll, og upphefiast yfer allar hæder. Og fólked skal hlaupa þar til.

2. Og marger heidingiar skulu fara og segia: komed! látum oss ganga upp til fialls Drottins, og til hussens Guds Jacobs, so hann kenni oss sína vegu, og ver skulum ganga á hans gøtum, því løgmáled mun útganga af Zion, og ord Drottins af Jerusalem.

3. Hann skal døma á medal mikels fólks, og straffa marga heidingia í fiarlægum løndum; þeir skulu gera sín sverd ad plógjárnum, og þeirra spiot til sigda, og þar skal ecke fólk reisa sverd á móte ødru, og þeir skulu eigi þadan frá læra ad strída.

4. Hver skal búa under sínu víntre og fíkiutre, án otta, þvíad Drottins Zebaoths munnur hefir sagt þad.

5. Þvíad hvert fólk skal ganga í síns Guds nafne, enn ver skulum ganga í vors Drottins Guds nafne, ætíd og æfennlega.

6. Á þeim sama tíma, seger Drottinn, vil eg samansafna hølltum, og þeim útreknu tilsamans koma, og þeim sem eg hefe plágad.

7. Og eg vil gera þá hølltu, ad þeir hafe erfingia, og þá útskúfudu ad miklu fólke, og Drottinn skal vera konungur yfer þeim á fiallenu Zion, hedan frá og ad eylífu.

8. Og þú turnenn Eder, ein festing Zions dottur! þín gyllene rósa skal koma, sá fyrre yferbodarenn, sem er konungsríke dotturennar Jerusalem.

9. Hvar fyrer hélldur þú þer nú þá til annara vina? er eigi konungurenn hiá þer? og eru aller þíner rádgiafar burt? so ad þar er komenn soddann hrelling yfer þig, sem yfer eina sem er í barnsneyd.

10. O mín hiartanlega! líd þú soddan hrelling, og styn þú dotter Zion! líka sem sú hin jódsióka, þvi þú mátt ad sönnu út af stadnum, og búa á mørkenne, og koma til Babylon, enn þú skallt frelsast þadann aptur, Drottinn mun þá frelsa þig frá þínum óvinum.

11. Þvi marger heidingiar munu fyckiast móte þer, og segia: hún er forbodud, ver viliom siá vora lyst á Zion.

12. Enn þeir vita eigi Drottins hugsun, og merkia eigi hans rádagerd, ad hann hefir safnad þeim tilsamans, líka sem ødru bindene í kornhlødu.

13. Þar fyrer þá rís þú upp, og þreskt, þú Zions dotter! því eg vil gera þer járnhórn, og koparklauser, og þú skallt sundursla margt fólk, so vil eg heita, ad gefa Drottne þeirra góts, og þeirra eigner þeim, sem droitnar yfer øllum heime.

14. Enn þú stríds'vinna, herklædsu! þvi menn munu umkringia oss, og slá Israels domendur á kinnbeinenn med keppum.

## 5. Capitule.

1. Og þú Bethlehem Ephrata! þú sem ert lítel á medal þusunda í Juda, út af þer skal mer koma sá sem vera skal Herra í Israel, hvers

útgangur ad vered hefir frá upphafe, og þegar frá eylífd.

2. Enn þess á millum lætur hann plaga þá, allt til þeirrar tídar, ad sú sem fæda skal, hefir fædt. So munu þá hans epter blífande brædur aptur koma til Israels barna.

3. Enn hann mun uppstanda og fódra í krapte Drottins, og í sigre síns Guds nafns. Og þeir skulu bua, því hann skal blífa veglegur á þeirre sømu tíd, so vidt sem verølldenn er.

4. Þar til munum ver og hafa frid fyrer Assur, sem er nú innfallenn í vort land, og hefir undertrodeð vor hús. Þviad sío hyrdarar, og átta høfdingiar, skulu uppvekiast á móte hønum.

5. Hverer fordiarfa skulu land ed Assur med sverde, og Nimrods land med þeirra berum voþnum, so munum ver frelsast frá Assur, sem er innfallenn í vort land, og hefir nidurtrodeð vor landamerke.

6. Og þad sem epter er af Jacob skal verda á medal margs fólks líka sem ein døgg af Drottne, og líka sem dropar á grass, þad sem epter engum bídur, eigi helldur vonar á mennenna.

7. Já! þeir sem epter eru ordner af Jacob skulu vera á medal heidingia hiá mørgu fólke, líka sem eitt Leon á millum dýra í skoge, líka sem eitt ungt Leon á millum einnrar saudahiardar, hvern eingenn getur hamlad, nær þad gengur þar ígegnum, nidurtredur, og sundurrífur.

8. Þviad þín hønd skal vinna sigurenn á øllum þínum mótstødumønnum, so ad aller þíner óviner skulu afmáder verda.

9. Á þeim sama tíma, seger Drottinn: vil eg þína hesta burt frá þer taka, og þína vagna fordiarfa.

10. Og uppræta allar þínar borger í landenu, og nidurbrióta alla þína fasta stade.

11. Og eg vil uppræta alla tøframenn hiá þer, so eingenn teiknaútþýdare skal vera hiá þer.

12. Eg vil uppræta þínum bílætum, og þínum afgudum frá þer, so þú skullt ei þadann frá tilbidia þinna handa gerninga.

13. Og eg vil nidurbrióta þína lunda, og afmá þína stade.

14. Og eg vil hefnast med grimd og reide á øllum heidingium, sem eigi vilia hlyda.

## 6. Capitule.

1. Heyred þó hvad Drottinn seger: statt þú upp og straffa fiøllenn, og lát hæderna heyra þína raust!

2. Heyred þer fiøll! hvernenn Drottinn vill straffa, og þer sterku jardarennar grundveller! þviad Drottinn vill ávíta sitt fólk, og hann vil straffa Israel.

3. Mitt fólk! hvad hefe eg gert þer, og hvar med hefe eg angrad þig? seg mer þad!

4. Eg færde þig þó af Egyptalande, og frelsade þig af því þrældóms húse, og sende Mosen, Aaron, og Mariam undann þer.

5. Mitt fólk! þeink þú þar uppá, hvad Balach, konungurenn af Moab, hafde í sinne, og hveru Balaam, Peors sonur, svarade hønum: frá Sittim og allt til Gilgal, á þessu skylldud þer merkia, hversu Drottinn hefir gert ydur allt gott.

6 Hvar med skal eg nú blídka Drottinn? med hnekreyningu fyrer þeim hæsta Gude? eda skal eg blídka hann med brenneførnum, og veturgømlum kálfum?

7. Wtler þá ad Drottinn hafe þocknan á mørgum þusundum hrúta, eda vidsmióre, þó þar være ótelianliaulegar ár fullar af? eda skal eg gefa minn frumgetenn son fyrer mína misgerninga, eda avøxt míns lífs fyrer synder minnar sálar?

8. Þú manneskia! þad er þer sagt, hvad gott er, og hvad Drottinn heimter ad þer, sem er, ad hallda Guds ord, og fremia kiærleika, og vera lítelátur fyrer þínum Gude.

9. Rødd Drottins skal hrepa yfer stadenn: enn hver sem óttast þitt nafn, hønum skal ganga vel. Heyred þer kynkvísler hvad þar predikast!

10. Enn líka sem ódur blífur óréttferdugt gots í húsum óguðhræddra, og sá haturlegeiilitl: epha.

11. Eda skyllde eg samþyckia þá røngu metaskál, edur falska vigt í seckiunum?

12. Med hveriu þeir ríkismenn gera mikenn órett, og þeirra innbyggiarar fara med lygar, og hafa falskar tungur í sínum hálsum.

13. Þar fyrer vil eg nu taka til ad plaga þig, og eydeleggia þig, fyrer þinna synda sakllr.

14. Þú skallt eigi hafa nóg ad eta, og þú skallt vanmegnast. Og til þess sem þú náer, þad skal þó eigi koma þadann, og hvad sem þadann kemur, þad vil eg þó afhenda sverdenu.

15. Þú skallt sá, og ei upp skera, þú skallt fergia oleum, og ei smyria þig med því, þú skallt þreingia vinberenn, og ei drecka vined.

16. Þviad menn hallda Sid Amri, og øll verk Achabs húss, og fylgia þeirra rádum. Því vil eg eydeleggia þig, og hennar innbyggiara, so menn skulu blystra epter þeim, og þer skulud bera brixle míns fólks.

## 7. Capitule.

1. Auvi! mer geingur líka sem þeim manne sem seinne leit beriann hefir í víngarde, þar madur finnur engva vinþrugu ad eta, og villde þó giarnann hafa funded þann besta ávext.

2. Pad rettláta fólked er burt í þessu lande, og þeir rettvísu er eigi meir á medal fólksins, þeir umsitia aller blód, hver rikur epter ødrum, so hann meige fordiarfa hann.

3. Og meina sig ad gera vel þar úti, nær þeir gera illa. Hvad høfdingenn vill, þad seger dómarenn, so ad hann gefe hønum eina þiónustu aptur. Þeir sem magtena hafa, ráda epter sínum eigenn vilia, skada ad gera, og snúa því so sem þeir vilia.

4. Sá allra beste á medal þeirra er líka sem þyrner, og sá ærlegaste er líka sem þystell. Enn nær dagur þinna predikara mun koma, á hverium þín skal vitiad verda, þá skulu þeir eigi vita, hvad þeir skulu til gera.

5. Eingenn trúe sínum náunga; eingenn treyste á høfdingiana. Vakta þú dyr þíns munns, fyrer þeirre sem sefur í þinu fange.

6. Því sonurenn forachtar fødurenn; dótturenn setur sig ímóte mødurenne; sonarkonann á móte modur síns mans, og mannsins óviner eru hans eiged heimafolk.

7. Enn eg vil líta til Drottins, og bída epter Guds míns hiálpræde, minn Gud mun heyra mig.

8. Gled þig eigi mín mótstødukona, þó eg ligge þar fallenn, eg

mun koma upp aptur, og þó eg sæte enn í myrkre, þá er þó Drottinn mitt liós.

9. Eg vil bera reide Drottins, þvi eg hefe syndgast á móte honum, þar til hann dæmer mína søk, og skickar mer rett, hann mun leida mig til lióssens, so eg siáe mína lyst í hans náð.

10. Mín mótstødukona mun siá það, og standa med allre skømm, hver nu seger til mín: hvar er Drottinn þinn Gud? mín augu skulu það siá, ad hún skal nidur trodast á strætenu so sem saur.

11. Enn á þeim tíma skulu þíner múrar uppbyggiast, og Guds ord skal vídt út koma.

12. Og á þeim tíma skulu þeir af Assur, og af stirkum stødum koma til þín, þeir frá þeim sterkum stødum, allt til vatnsins, frá einu hafenu til annars, frá einu fiallenu til annars.

13. Þviad landed skal verda í eyde, fyrer søkum sinna innbyggiara, og søkum ávaxtar þeirra verka.

14. Enn fæd þú þitt følk med þínum staf, þinnar arfleidar hiörd, sú ad byr bæde alleina í skogenum, og uppá merkenne. Lát þá fódrast í Basan og Gilead, so sem í forðum tíd.

15. Eg vil láta þá siá furdanlega hlute, líka sem á þeim tíma, þá þeir fóru út af Egyptalande.

16. Ad heidingiarner skulu það siá, og aller þeirra enu vollduga skulu skammast sín, og leggia hendur á sinn munn, og hallda fyrer sín eyru.

17. Þeir skulu sleikia duft sem høggormar, og skrídse sem madkar í sínum holum. Þeir skulu vera hrædder fyrer Drottne vorum Gude, og ottast þig.

18. Hvar er soddann einn Gud sem þú ert? hver ed fyrergefur synderner, og forlætur misgerningana, þeim sem epter eru af hans arfleifd, hann sem helldur eigi sinne reide æfinlega, þvi hann er miskunsamur.

19. Han mun miskunna oss aptur ad nyu, nidur troda vora misgerninga, og kasta øllum vorum syndum í hafsins diup.

20. Þú munt hallda þína trú vid Jacob, og vid Abraham þína náð, so sem þú hefir svared vorum forfedrum fyrer langre æfe.

Ender Prophetans Michea.

# Prophetenn Nahum.

## 1. Capitule.

1. Þetta er sú byrdenn yfer Ninive, og sú spádóms bók Nahum af Elkos.

2. Drottinn er einn vandlætende Gud, og einn hegnare, já, einn hegnare er Drottinn og reidur, Drottinn er hefnande á sínum mótstødumønnum, og hann sem ei mun gleyma því á sínum óvinum.

3. Drottinn er þolennmodur, og miøg kraptugur, fyrer hverium ad eingenn er saklaus; hann er Drottinn, hvers veiger eru í vinde og storme, og under hans fótum þickt dupt.

4. Sá sem hastar á sióenn, og

gerer hann þurrann, og uppþurkar øll votn. Basan og Carmel vanmegnast, og allt þad sem blomgast á fiallenu Libanon vanmegnast.

5. Fiøllenn skiálfa fyrer honum, og hálsarner forganga; jardríked bifast fyrer honum, þar ad auk veralldarkringlann, og þeir aller sem búa þar á.

6. Hver má standa fyrer hans reide? enn hver má blífa fyrer hans grimmd? hans reide brennur sem elldur, og biørgenn springa ísundur fyrer honum.

7. Drottinn er gódur, og einn fastur stadur í tíma neudarennar, og kann þecker þá sem treysta uppá hann.

8. Nær ed flóded yfergeingur, þá lætur hann þad hafa enda, enn hann ofsæker sína óvine med myrkre.

9. Hvad hugsed þer imóte Drottne? hann mun þó gera einn enda þar á, óluckann mun eigi koma tuisnar.

10. Þuiad líka sem þyrnar, þeir ed vaxa hver í ødrum, og í bestu vøkvan eru, verda brennder, líka sem ølldungis þurt halmstrá.

11. So skal þad ganga þvi skalkaráde, sem kemur af þer, og þeinker vondt á móte Drottne.

12. So seger Drottinn: kome þeir so bryniader og mátluger sem þeir vilia, þeir skulu þó um koll høggvast, og búrt fara! eg hefe audmykt þig, enn eg vil eigi audmykia þig aptur.

13. Þvi vil eg sundurbrióta hans ok, þad þú ber, og sundurslíta þín bønd.

14. Enn Drottinn hefir boded móte þer, ad af sæde þíns nafns skal eingenn framarmeir epter verda. Eg vil uppkippa þer af þíns Guds húse, eg vil gera afgudena, og bilætenn, þer til einnrar grafar, þvi þú ert ordinn ad engu.

15. Sieed! uppá fiøllunum koma fætur eins gods sendaboda, sem predikar fridenn. Þú Juda! hallt þína helga daga, og efn þú þín heit, þvi skalkurenn skal eigi framarmeir koma yfer þig, hann er med øllu afmádur.

## 2. Capitule.

1. Sundurdreifarenn skal ferdast upp imóte þer, og setást um kastalana, enn gaumgæf þú strætenn, bú þig þad allrabesta, og efl stirk þad mesta þú kannt.

2. Þviad Drottinn skal bitala Jacobs drambseme, so sem Israels drambseme, þvi lestrarmennerner munu lesa þá upp, og fordiarfa þeirra vínkvistu.

3. Hans sterkra skiallder eru rauder; hans stríðsmenn eru sem purpure; hans vagnar leiptra sem elldur, þá hann vill høggva til samans; þeirra spiót bifast.

4. Vagnarner glamra á gotunum, og þrickta á strætunum; þeir lýsa sem blys, og fara til samans sem elldingar.

5. Enn hann mun þeinkia á sína magtarmenn; þó skulu þeir sømu falla, hvert sem þeir snúa ser, og þeir munu flyta ser til murveggianna og til víges, þar þeir meige ugglauser vera.

6. Enn portenn hiá vatnenu skulu þá verda upplátenn, og høllenn skal forganga.

7. Drottningenn skal hertekenn burtflytiast, og hennar jungfrúr skulu andvarpa sem dúfur, og beria á sín brioft.

8. Þviad Ninive er líka sem dammur, fullur af vatne, enn þad skal burt renna. Standed vid!

standed vid! (munu þeir kalla) enn þar skal eingenn snúa ser aptur.

9. So ræned nú silfre, ræned gullet, þvi her er ógrynne liggiande fiárs, og mergd allrahanda kostuligra dyrgripa.

10. Enn nú hlytur hún med ollu upp ad leysast, og ruplast, so hennar hiarta skal bleydast, knein veik'ast, allar lendar bifast, og oll andlit bleik útsiá sem pottur.

11. Hvar er nú leonanna heimeled, og hagar þeirra ungu leonanna? þar sem leoned og leoninnann geingu med þvi unga leonenu, og eingenn þorde ad reka þau burt.

12. Helldur rænte leoned nóg fyrer sína unga, og drap nidur handa sinne leoninnu, hann uppfyllte sínar holur med herfange, og sín inne med þui, sem hann hafde sundurrifed.

13. Siá þú! eg vil til vid þig, seger Drottinn Zebaoth: og uppkveikia þína vagna í reik, og sverd ed skal eta þín ungu leon, og eg vil gera enda á þinu ráne á jordu, so menn skulu eigi heyra raustu þinna sendeboda hedan af.

## 3. Capitule.

1. Vei þeim manndrápa stad, hver fullur er af lygum og réne, og vill eigi láta af sínum ránskap!

2. Þvi þar skulu menn heyra svipurnar hliéma, og hiolenn brickta, hestana hneggia, og vagnana glamra.

3. Hann færer riddarana upp, med skígdum sverdum, og skinande spiotum. Þar liggia marger í helslegner, og mikell fiollde líkama, so eingenn getur taled þá, og menn hliota ad detta um líkamana.

4. Þad sker alltsaman fyrer þann stóra hóruskap þeirrar fogru bægelegu hóru, hver ed skiolkinge hefir med hond, og heidingiana hefir med sínum hórdome, enn lond og lyde med sínum golldrum útvegad.

5. Siá þú! eg vil þer imót, seger sá Drottinn Zebaoth! eg vil uppsletta klædafallde þinum, under þitt auglit, og eg vil syna heidingium þitt kiædleyse, og syna þína smán kongarikiunum.

6. Eg vil gera þig miog hrædelega, og skamma þig, og gera þig ad einne hrædn.

7. So ad aller þeir sem þad siá, skulu flya fyrer þer, og segia so: Ninive er foreydd! hver vill samharma med henne? og hvar skal eg leita þer ad huggara?

8. Meinar þú, ad þú sert betre enn sá fiolmenna stadurenn No, sá ed lá hiá vatnenu, og hafde vatned allt umkring, hvers murar og festingar ad siórenn var.

9. Morland, og Egyptaland voru hennar óteliánleg magt; Put og Lybia voru þín hiálp.

10. Hann vard þó útslæmdur, og vard fangenn ad ryma burt, og hans born voru sundurslegenn á ollum strætum, og menn kostudu hlute um hans þá edlabornu, og aller hans magtar menn voru bunduer hleckium, og setter í fiotur.

11. So hlytur þú og ad verda druckenn, og fela þig, og leita þer ad fostum stad fyrer óvinum.

12. Aller þiner sterku stader eru sem fíkiutre, med fullvoxnum fíkium, nær madur hrister þaug, þá falla þær þeim í munn sem þær vill eta.

13. Siá! þitt fólk skal verda ad konum í þer, og portenn þins lands skulu upplúkast fyrer þinum óvinum, og elldurenn skal eyda þinum grindum.

14. Uppaus þer vatn! þvi þu skallt verda umkring, bættu um þinn kastala, far í leirenn, hnoda leirenn, og ger sterka tigulsteina!

15. Enn elldurenn skal uppeta þig, og sverded skal ihelslá þig, þad skal uppeta þig líka sem kálormur, þad skal yferfalla þig sem kálormur, þad skal yferfalla þig sem engesprettur.

16. Þú hefir fleyre kaupmenn enn stiørnur eru á himnum, enn nú skulu þeir útbreida sig sem kálormar, og fliúga burt.

17. Þiner Herrar eru so marger sem engesprettur, og þiner høfudsmenn sem kálormar, sem liggia hiá gerdunum, á þeim kallda deige. Enn þegar sólenn uppkemur, þá hafa þeir sig burt þadann, so madur veit eigi hvad af þeim verdur.

18. Þiner hirdarar munu sofa, ó þú konungur af Assur! þiner magtar menn munu leggia sig, og þitt fólk mun sundur dreifast á fiøllunum, og eingenn mun safna þeim samann.

19. Eingenn skal harma þinn skada, eige helldur hriggiast vegna þinnar plágu, helldur aller þeir sem heyra soddann um þig, skulu samanklappa sínum høndum yfer þer, þvi yfer hvern er eigi þín illska í sífellu geingin?

Ender Prophetans Nahum.

# Prophetenn Habacuk.

## 1. Capitule.

1. Þetta er sú byrdenn, sem Habacuk prophete hefir séd.

2. Drottinn! hversu leinge skal eg hrópa, enn þú villt eigi heyra? hversu leinge skal eg hrópa til þín, um þad ofrike, og þu villt eigi hiálpa?

3. Þvi lætur þú mig siá mædu og erfide? þvi vísar þú mer rán og rangindi kringum mig? magtenn geingur yfer rettenn!

4. Þess vegna geingur þad miøg ødruvís til, enn so sem rett er, og ecke rett mál kann ad hafa sigur, þviad sá óguðhrædde svíkur þann rettláta, þvi ganga domarner ranger.

5. Siáed á medal heidingianna, siáed og undred ydur! þvi eg vil gera nockud á ydrum tíma, hveru þer skulud eigi trúa, þá menn segia þar af.

6. Þvi siáed! eg vil uppvekia þá Chaldeos, eitt beiskt og snarlegt fólk, hvert ad ferdast skal so vídt sem landed er, ad inntaka þau heimele sem eigi eru þeirra.

7. Og þeir skulu vera ógnarleger og hrædeleger, þeir ed skulu bióda og þvinga sem þeir vilia.

8. Þeirra hestar eru fliótare enn Pardus, so eru þeir grimmare enn ulfar ad kvøllde. Þeirra riddarar ferdast hingad í stórum hópum af fiarlægd, sem fliúge þeir, líka sem ørn til eins hræs.

9. Þeir koma allersaman hingad til þess ad þeir gere skada. Þeir brióstast gegnum hvert þeir vilia, sem eitt austan vedur, og þeir skulu safna þeim hertekna tilsamans sem sande.

10. Þeir skulu hæda konunganna, og hlægia ad hofdinglunum. Allar sterkar borger skulu vera þeim eitt gaman, þvi þeir skulu gera vörn, og þó vinna þær.

11. Þá skulu þeir taka nytt mód til sin. Þeir skulu áframm fara og syndgast, so hlytur þeirra sigur ad heyra þeirra Gude til.

12. Enn þú Herra minn Gud! minn heilagur! þú sem ert af eylifre tíd! Lát oss eigi deya, helldur lát þá Drottinn! vera ad eins vort straff, ó þú vor styrkur! lát þá ad eins typta oss.

13. Þín augu eru hrein, so þú kannt ei ad siá þad vonda, og þú getur ei sied eymdena. Hvar fyrer ser þú þá til þeirra forsmáaara, og þeiger, þad sá hinn ógudlege uppsvelger þann sem fromare er enn hann?

14. Og þú lætur mennena ganga sem siska í siónum, so sem orma þeir engann Herra hafa.

15. Þeir draga þad alltsaman med krókum, og veida þad med sínum vodum, og safna þvi saman med sínum netum. Af þessu glediast þeir, og eru kåter.

16. Þar fyrer offra þeir sínum veidarfærum, og gera reykelse fyrer sínum netum, þvíad þeirra partur er ordenn feitur af þvi sama, og þeirra matur so mikell.

17. Þar fyrer varpa þeir sínu nete alltíd út, og villa eigi afláta ad drepa fólked.

## 2. Capitule.

1. Her stend eg á mínu vardhallde, og geing uppá minne festingu, og skoda, og se til, hvad mer sagt verdur, og hveru eg skal svara þeim sem mig straffar.

2. Drottinn svarade mer, og sagde: Skrifa þú þessa syn, og mála þú hana á eitt spialld, so þeir kunne ad lesa hana sem þar framm hiá hlaupa (sem er á þennann hátt.)

3. Spádomurenn mun vissulega enn uppfyllast á sínum tíma, og skal endelega koma í lios, og eigi verda úte, og þó hann dvele, þá bíded hans, þvi hann skal vissulega koma, og eigi tefia.

4. Siá! sá sem er hardsvíradur, hann skal enga ró hafa í sínu hiarta, þvi sá rettláte lifer af trú sinne.

## 3. Capitule.

1. Enn víned prettar drambsamann mann, so ad hann kann eigi ad standast, hver sína ønd uppsperrer sem helvíte, og er fliótur sem daudenn, sá ei kann sediast, helldur safnar øllum heidingium til sín, og safnar øllu fólke ad ser.

2. Enn hvad gilldir? þad aller þeir hinir somu skulu gera einn máls hátt um hann, og eina rædu med ordskvidum, og segia: vei þeim sem sitt góds auka med annars audæfum! og hversu leinge skal þad vara? og hledur á sig miklum saur.

3. O! hversu skyndelega skulu þeir uppvekiast, sem bíta skulu þig, og uppvakna, sem þer skulu burthrinda, og þú skallt verda þeim til hlutskiptis!

4. Þvi þú hefir rænt marga heidingia, so skulu þeir nú ræna þig aptur, aller þeir sem epter eru af fólkenu, fyrer sakum mannablóds, og fyrer þad ófrike sem þú gerder í landenu og stadnum, og á øllum þeim þar inne búa.

5. Vei þeim sem hann er ágiarn til ólucku síns húss! til þess ad hann meige leggia sitt hreidur í hædenne, so hann meige komast undann óluckunne.

6. Enn þin rádagerd skal verda

til skammar þínu húse, Þvi þú hefir deydt ofmargt fólk, og hefir syndgast med allshåttadre Þverub.

7. Þvi steinarner í múrnum skulu og hrópa, og bitarner under sperrunum skulu svara Þeim.

8. Vei Þeim sem uppbygger stadenn med blóde, og tilbyr borgena med órette!

9. Er Þad eigi so, ad Þad mun ske af Drottne Zebaoth? hvad fólked hefir fyrer Þig unned, Þad skal uppbrennast med ellde, og Þad á hveru fólked Þreytest, Þad hlytur ad verda tapad.

10. Þvi jordenn skal verda full af vidurkenningu dyrdar Drottins, so sem vatn; Þad sem hylur sióenn.

11. Vei Þer sem skeinker á fyrer Þinn náunga, og blandar Þinne grimd Þar med, og gerer hann druckenn, só þú meiger sia hans smán.

12. Menn skulu og metta Þig med skømm fyrer heidur. So dreck þú nú einnenn, so Þú detter um koll, Þinn kaleikur í hægre hende Drottins skal umkringia Þig, og þú skallt skammarliga spya í stadenn Þinnar vegsemdar.

13. Þvi sá yfergangur sem þú framder vid Libanon, hann skal falla yfer Þig, og Þau nidurslegnu dyr skulu hræda Þig, fyrer søkum blóds mannanna, og Þess ofbelldis, sem framed er í landenu og stadnum, og vid alla Þá sem Þar inne búa.

14. Hvad skal Þá Þad bílæted hiálpa, sem meistarenn hefir gert, og Þad falska skyppta líkneske, á hvert meistarenn so let sig, ad hann gerde Þad málllausa skurgod.

15. Vei Þeim sem seger til tresins: vakna upp! og til málllausra steina, standed upp! hvernenn skylde Þad læra? sia! Þad er med gulle og silfre yferdreiged, og eingenn ande er í Þvi.

16. Enn Drottinn er í sínu heilaga múftere, oll verolldenn skal vera kirr fyrer honum.

## 4. Capitule.

1. Þetta er bæn Habacuks propheta fyrer Þeim saklausa.

2. Drottinn! eg hefe heyrt Þitt rikte, so eg óttest. Drottinn! þú gerer Þína gerninga lifande midt á árunum, og á midiu árenu lætur Þú kunngera Þad, Þá hriggdenn er Þar, Þá minnest Þú á miskunsemena.

3. Gud kom af sudre, og sá heilage af fiallenu Pharan, Sela! Himenenn var fullur af hans lofe, og jordenn var full af hans dyrd.

4. Hans skin var sem liós; geislar geingu af hans hondum, Þar var hans magt leyndelega.

5. Undann honum geck drepsott, og plágann geck út, Þar sem hann fór framm.

6. Hann stód og mællte landed; hann leit til og tvistrade heidingiunum, so ad verallear fiallenn urdu ísundurlamenn, og hædernar í heimenum máttu lecka sig, Þá hann geck í verolldenne.

7. Eg sá kreysenn Þeirra blálendinga í mædu, og tiolld Þeirra Madianita hriggdarfull.

8. Drottinn! varst Þu eigi reidur í flódenu? og Þin grimd í vatnenu, og Þin reide í siónum? Þá Þú reidst á Þinum hestum, og Þiner vagnar hofdu sigurenn?

9. Þú dróst framm bogann, so sem Þu halder svared ættunum. Sela! og skipter straumunum í landed.

10. Fiallenn sáu Þig og hræddust, vatnsstraumurenn rann burt,

dimmed let heyra sig, hæbernar hóf u upp hendurnar.

11. Sólenn og tungled stódu kirr; Þínar pílur flugu burt med leiptran, og þín spiot med skine af leiptran.

12. Þú nidurtradst landed í reide, og ísundur þreskter heidingana í grimd.

13. Þu fórst út ad hiálpa þínu fólke, ad hiálpa þínum smurda; þa ísundurslóst hofuded, í húse þeirra ógudlegu, og gerder nakenn grundvöllenn allt upp ad hálse, Sela!

14. Formælt þu rikes sprota þess hofudsins, med hans hornum, hver er ed koma sem einn stormur, meir ísundur ad dreifa, og gledia sig, líka sem þad þeir æti þann fátæka med leynd.

15. Þíner hestar fara í siónum, í bleytu mikellra vatnsfalla.

16. Af þvi eg sa þann heyre, þá er minn kvidur hriggur; mínar varer titra af þvi hrópe; rotnan geingur í mín bein, eg em hriggur med mer siálfum. Ó! ad eg mætte hafa hvíld á þeim hormungar tíma, þá ver reisum upp á móte þvi fólke sem móte oss strider!

17. Þvi fíkiutred skal eigi grænkast, og þar skal eingenn ávortur vera á vínvidnum; erfide vantar vidsmiosins tred, og akrarner bera enga næring, og sauderner verda úr sauduhúsunum gripner, og eingenn uxe mun vera í nautahúsunum.

18. Enn eg vil gledia mig í Drottne, og fagna í Gude mínum heilsugiafara.

19. Þviad Drottinn Drottinn er minn kraptur, og hann mun gera mínar fætur sem hiartar fætur, og hann mun færa mig í hædena, so eg synge á mínu hliódfære.

Ender Prophetans Habakuk.

# Prophetenn Zophonias.

## 1. Capitule.

1. Þetta er þad ord Drottins, sem skede til Zophonias, Chusi sonar, Gedalia sonar, Amaria sonar, Ezechie sonar, í tid Josiæ, Amons sonar, sem var konungur Juda.

2. Eg vil taka alla hluti burt af landenu, seger Drottinn.

3. Eg vil burttaka bæde menn og fenad, bæde fuglana under himnenum, og fiskana í siónum, med þeim hneixlonum, og þeim ógudlegu: já! eg vil uppræta mennena af landenu, seger Drottinn.

4. Eg vil útrétta mína hond yfer Juda, og yfer alla þa sem búa í Jerusalem, so vil eg uppræta þad sem epter er af Baal, þar med nafned Camarim, og prestanna nofn, af þessum stad.

5 Og þá sem uppá þekiunum tilbidia himens her; þeir sem tilbidia þad, og sveria þó vid Drottinn, og under eins vid Malchom.

6. Og þá sem falla frá Drottne, og þá sem eigi hyrda um Drottinn, og ei akta hann.

7. Vered kirrer fyrer Drottne Drottne! Þvi Drottins dagur er í Nánd, Þvi Drottinn hefir tilreidt eitt slátrunaroffur, og boded sínum gestum þar til.

8. Og á Drottins slátrunaroffurs dege, vil eg heimsækia hofdingiana, og konungsins born, og

alla þá sem ad bera útlendskann klædnad.

9. Og á þeim sama tíma vil eg heimsækia þá sem stockva yfer þröskulldu, sem fylla sinna herra hús med ráne og svikum.

10. Á sama tíma, seger Drottinn, mun sig uppheffia eitt hátt kall frá fiskaportenu, og einn grátur frá því ödru portenu, og ein mikel eymd á hædunum.

11. Vled þer sem búed í mylnuhúsunum! Því allt kaupmanzafólked er burtu, og þeir aller sem safna peningum, eru uppræter.

12. Á sama tíma vil eg rannsaka Jerusalem med skridliósum, og eg vil heimsækia það fólk, sem liggur á sínum dreggium, og seger í sínu hiarta: Drottinn mun hverke gera vondt ne godt.

13. Og þeirra góts skal verda ad herfange, og þeirra hús í eyde; þeir skulu byggia hús og ei bua í þeim, þeir skulu planta víngarda, og ecke vín drecka af þeim.

14. Því ad sá mikle dagur Drottens er í nánd, hann er nærre og flyter sér miøg. Þá rikted kæmur um Drottens dag, þá skulu þeir ènu sterku beisklega hrópa;

15. Því þesse dagur er dagur grimmdarennar, dagur hørmungar og eymdar, dagur storms og vinds, dagur myrkurs og dimmu, dagur skya og þoku.

16. Dagur básunanna og trometanna, mót þeim sterkum borgum og háfum slotum.

17. Eg vil gera fólked so hugsiukt, ad þeir skulu ganga skring sem blinder menn, af því þeir hafa syndgast móte Drottne; þeirra blód skal úthellast líka sem være þad dupt, og þeirra likamer, so sem þeir være óhreinende.

18. Þeirra silfur og gull skal eigi hiálpa þeim, á þeim reidennar deige Drottens. Helldur allt landed skal eydast fyrer hans vandlætingar elld, því hann skal gera einn ender á øllum þeim sem búa í landenu.

## 2. Capitule.

1. Þú haturlega þiód, safnast samann, og kom hingad!

2. Adur enn dómurenn út geingur, ad þer fared burt á deige so sem agner, ádur enn sú grimmdar reide Drottens kemur yfer ydur.

3. Þer aller vesølu í landenu, leited Drottens, þer sem hallded hans rett, leited rettlæteſins, leited audmyktarennar, so ad þer mættud verda geymder á þeim reidennar deige Drottens!

4. Því ad Gasa skal forlátast, og Ascalon skal eydeleggiast, Asdod skal fordrífast á midium deige, og Accaron skal upprætast.

5. Vei þeim sem þar búa nidur vid siónn, því fridsfólkenu! Drottens ord skal koma yfer ydur. Þú Canaan Philistea land, eg vil fordiarfa þig, so eingenn skal þar leingur búa!

6. Þar skal eigi vera nema hirdarahreise, og saudahús nidur vid siefarsiduna.

7. Og þau sømu skulu þeim eyterbliſnu af Juda húse verda ad hlutskipte, so þeir skulu þar fæda (þeirra hiørd). Þeir skulu leggia sig ad kvellde í Ascalons hus, nær ad Drottenn þeirra Gud vitiar þeirra aptur, og snyr þeirra fangelse.

8. Eg heyrde Moabs brixlyrde, og spottaner Ammons barna, med hverium þeir forvirdtu mitt fólk, og hrósudu sér á þeim sømu landamerkum.

9. Nu vel! so sannarlega sem eg lifi! seger Drottenn Zebaoth Is-

raels Gud, Moab skal verda sem Sodoma, og Ammens børn sem Gomorra, já! sem einn netlulegg-ur, edur salltgrøf, og ein eylif audn. Þeir epterblifnu af mínu fólke skulu ræna þá, og þeir epter-blifnu af mínu fólke skulu erfa þá.

10. Þad skal þá ske fyrer þeirra drambsemes saker, fyrer þad ad þeir vanvirdtu þess Drottens Zebaoths fólk, og hrósudu sier.

11. Drottinn skal verda ognar-legur yfer þeim, þvi hann skal af-má alla Gude af jørdunne, og all-ar eyar á medal heidingianna sku-lu tilbidia hann hver í sinn stad.

12. Og þer blamenn skulud í-helslást fyrer mínu sverde.

13. Og hann skal útretta sína hønd yfer nordred, og fordiarfa Assur. Hann skal gera Ninive ey-de, þurra sem eydemørk.

14. So allrahanda dyr skulu bæla sig þar inne, á medal heidin-gianna, og þar skulu hrossagaukar og pindsvín búa ofann á þeirra turnum, og syngia í þeirra vind-augum, og hrafnar á bitunum, þviad cedrus fialernar skulu af-briotast.

15. Þad er sú gladvære stadur-enn sem bió so athugalaus, og sag-de í sínu hiarta: eg em, og eingenn annar! hvernenn er hann ordenn so audur? ad dyr búa þar inne, og hver sem geingur þar framm hia, hann blístrar og klappar med høndunum yfer hønum.

## 3. Capitule.

1. Vei þeirre liotu saurugu vík-ingslegu borg!

2. Hún vill ei hlyda, og ei helld-ur láta aga sig, hún vill eigi trey-sta á Drottinn, eigi helldur hallda sier til síns Guds.

3. Hennar høfdingiar í henne eru greniande Leon, og hennar dóm-endur eru ulfar um kvølldenn, þeir ed ecke láta epter verda til morg-uns.

4. Hennar spámenn eru óstød-uglyndер, og forsmánarar, henn-ar prestar vanheidra helgedómenn, og útleggia løgmáled ranglega.

5. Enn Drottenn, sem er á mill-um þeirra, hann kenner rett, og gerer eigi neitt illt, hann lætur hvern morgun kenna sín rettinde opennberlega, og hann lætur ei af, enn þad vonda fólk vill eigi læra ad skammast sín.

6. Þar fyrer vil eg þetta fólk uppræta, þeirra slot eyda, og þeir-ra stræte tóm gera, so ad eingenn skal ganga á þeim, þeirra stader skulu eydeleggiast, so ad eingenn skal meir búa í þeim.

7. Eg let segia þer: Þú skallt óttast mig, og láta aga þig, so munde eigi þeirra heimele uppræt-ast, og ecke skal koma af því, med hveriu eg hugda hans ad vitia. Enn þeir eru kostgæfner til ad fre-mia allrahanda illsku.

8. Þar fyrer (seger Drottinn:) skulud þer aptur á mót og so mier bída, þar til ad eg upprís á sínum tíma, þá eg mun dæma, og heid-ingiunum samannsafna, og kon-ungarike í eitt færa, minne reide yfer þá hella, já! allre reide minn-ar grimdar, þviad øll verølldenn skal uppeydast fyrer minn vand-lætingar elld.

9. Þá vil eg ødruvís láta pre-dika fyrer fólkenu, med vinsam-legum vørum, so þeir skulu ákalla aller nafn Drottins, og þióna hønum med samþycke.

10. Menn skulu færa mer hing-ad mína tilbidendur, til einnar skeinkingar, sem eru þeir sundur-

dreifdu þinn meiginn vatnsins, í Morlande.

11. Á þeim tíma mun þú eigi framarmeir skammast þín vegna allra þinna gerninga, med hverum þú hefir yfertrodeð ímóte mer. Þviað eg vil taka fra þer þá dramblátu heilaga, so þu skallt eigi meir upphefia þig fyrer søkum míns heilega fialls.

12. Eg vil láta eitt fátækt lít elshóttar fólk epterblífa í þer, þeir skulu voxa uppá nafned Drottins.

13. Þeir sem epterblífa í Ísrael, munu eci vondt gera, edur órett tala, og þar skal ei finnast ein sviksom tunga í þeirra munne, helldur þá skulu þeir fædast og hvílast án alls otta.

14. Gled þig þú Zions dotter! kalla þú Ísrael, vert glød og fegna af øllu þínu hiarta, þú Jerusalems dotter!

15. Þviað Drottinn hefir burt teked þitt straff, og burtvendad þínum óvinum. Drottinn Ísraelis konungur er hiá þer, svo ad þú þarft eigi framarmeir ad óttast fyrer nockre óluclu.

16. Á þeim sama tíma skulu menn segia til Jerusalem: óttast þú eigi! og til Zion, lát þínar hendur eigi letiast!

17. Þviað Drottinn þinn Gud er hiá þer, einn sterkur frelsare, hann skal gledia sig yfer þer, og vera þer vinsamlegur, og fyrergefa þer, og hann skal glediast yfer þer med hliomande hliode.

18. Eg vil koma þeim burt, sem ad þreyngder voru med setningum, so þeir kome frá þer, hverer setningar ad voru þeirra byrde, hvar af þeir høfdu vanvirdu.

19. Siá þú! eg vil gera einn enda á þeim øllum, á sama tíma, sem þig plágudu. Eg vil hiálpa þeim hølltu, og samannsafna þeim útreknu, og eg vil gera þá til lofs og heidurs, í øllum løndum, í hverum menn forsmádu þá.

20. Á þeirre tíd vil eg innleida ydur, og samannsafna ydur á þeim tíma. Þvi eg vil gera ydur til lofs og heidurs, á medal alls folks á jørdunne, þá eg sny ydru fangelse um fyrer ydrum augum, seger Drottinn.

Ender Prophetans Zophoniæ.

# Prophetenn Haggeus.

## 1. Capitule.

1. Á þvi ødru áre Darii, kongungs, í þeim siøtta mánude, á þeim fyrsta deige í mánudenum, skede ord Drottins fyrer Hageum Propheta, til Sorababels, Sealtiels sonar, þess ypparsta kennemanns, og sagde:

2. So seger Drottinn Zebaoth: þetta fólk seger: tímenn er ei enn komenn, ad menn skule upp byggia Herrans hús.

3. Og ord Drottins skede fyrer Haggeum propheta.

4. Enn ydar tíd er komenn, ad þer skuuld búa í þiliudum húsum, og þetta hús skal standa í eyde.

5. Nú so seger Drottinn Zebaoth: skoded, hvernenn ydur geingur.

6. Þer sáed mikid, og safned litlu; þer eted, og verded þó ei

melter, þer drecked, og verded þó ei druckner, þer klæded ydur, og verted þo eigi varmer, og hver sem forþenar peninga, sá leggur þá í einn undurstitenn pung.

7. So seger Drottinn Zebaoth: gaumgiæfed, hvernenn þad geingur ydur!

8. Fared upp á fialled, og sæked videna, og byggeð húsed, þad skal vera mer þacknæmt, og eg vil láta siá mína dýrd, seger Drottinn.

9. Þvi þer voned vel mikels, og siá! þad verdur líted, og þó þer ellarlidu þad heim ærdud, þá gióre eg ó þad ad duste, hvernenn kemur þad til? seger Drottinn Zebaoth, af þvi ad mitt hús stendur so i eyde, og hver flyter ser med sitt hus?

10 Þar fyrer innehelldur himenenn dögguna yfer ydur, og jørdenn sínum grøda.

11. Og eg hefe kallad þurk, bæde yfer landed og fiøllenn, yfer korn, vin, vidsmiør, og yfer allt þad sem kemur af jørdunne, og so yfer fólk og fe, og yfer allt handanna erfide.

12. Þá hlyddde Soro Babel, Sealthiels sonur, og Josua, Jozadaks sonur, sá hæfudprestur, og aller þeir sem epter voru ordner af fólkenu, þvilikre Drottins þeirra Guds røddu, og ordum Haggei propheta, líka sem Drottinn þeirra Gud hafde útsendt hann, og fólked ottadest fyrer Drottne.

13. Þá sagde Haggeus, Drottens eingell, sem hafde bodskap Drottins til fólksins: eg er med ydur! seger Drottinn.

14. Og Drottinn uppvakte anda Soro Babels, Sealthiels sonar, høfdingians Juda, og anda Josua, Jozadaks sonar, præstahøfdingians, og so anda þess alls epterblifna fólks, so ad þad kom og erfidade uppá hús Drottins Zebaoths þeirra Guds.

## 2 Capitule.

1. A þeim fiorda og tuttugasta deige í þeim siötta mánade, á ødru are Darii konungs.

2. A þeim fyrsta og tuttugasta deigi i þeim siøunda mánude, þá skede ord Drottins fyrer Haggeum propheta, og sagde:

3. Seg þu til Soro Babels, Sealthiels sonar, Juda høfdingia, og til Josua Jozadaks sonar, kennemanna høfdingia og til þess epterblifna fólks, og seig:

4. Hver er epterblifenn á medal ydar, sem sá þetta hús í sinne fyrre dyrd? og hvernenn siáed þer þad nu? er þad eigi so, ad þad þycker ydur einskis verdt vera?

5. Og nu Soro Babel! vert þú hughraustur, seger Drottinn, ver þú øruggur þu Josua, Jozadaks sonur, þú prestahøfdinge: vered hughrauster, allt fólk i landenu, seger Drottinn, og erfided, þvi eg em med ydur, seger Drottinn Zebaoth!

6. Epter þvi orde þá eg gerde einn sáttmála vid ydur, þá þer fórud af Egyptalande, þá skal minn ande blifva á medal ydar, ottest eigi!

7. Þvíad so seger Drottinn Zebaoth: þar er nu einn litill time til, ad eg vil hræra himen og jørd, sioenn og þurrlended.

8 Já, eg vil hræra alla heidingiana, þá skal hnegun allra heidingia koma. Og eg vil gera þetta hús fullt af dyrd, seger Drottinn Zebaoth.

10. Þessa sídarsta hússens dyrd skal vera stærre enn hins forra vaf, seger Drottinn Zebaoth Og eg vil gefa frid á þessum stad, seger Drottinn Zebaoth.

11. A þeim fiorda og tuttugasta deige, þess níundar mánadar, á því ødru áre Darii, skede ord Drottins til Haggeum propheta, og sagde:

12. So seger Drottinn Zebaoth: spyr prestana um løgmáled, og seg þu:

13. Ef nockur ber heilagt kiøt í skaute síns kyrtels, og áhrærde sídann med sama skaute, braud, kál, vín, olíum, eda hvad fyrer mat þad være, verdur þad þá og heilagt? Og prestarner svørudu og søgdu: nei.

14. Haggeus sagde: enn ef nockur óhreinn, af því hann hefir snorted eitt hræ, og ef hann snerter sídann eitt af þessu, verdur þad þá og óhreint? Prestarner svørudu og søgdu: þad verdur óhreint.

15. Þá svarade Haggeus, og sagde: líka so er og þesse lýdur, og þesser menn fyrer mer, seger Drottinn: og allur gerningur þeirra handa, og þad þeir offra, er óhreint.

16. Og síaed nú! hvernenn þad hefir geinged ydur, frá þessum deige, og ádur til forna, fyrr enn nockur steinn var lagdur uppá annann í mustere Drottins.

17. Ad þegar nockur kom til kornhrúgunnar, sá sem hafa skyllde tuttugu mælera, þá urdu þar varla tíu, kæme hann til vínpressunnar, og ætlade ad fylla fimmtíu Ámur, þá urdu varla tuttugu.

18. Því eg plágade ydur med þurke, brenndu korne, og hagle, í øllu ydru erfide, enn þó líka vel snerud þer ydur eigi til mín, seger Drottinn.

19. Því gefed gætur ad, frá þessum deige, og til forna, sem er frá þeim fiorda og tuttugasta deige, á þeim níunda mánude, allt til þess dags, sem lagdest grundvøllur musteris Drottins: lyted þar á!

20. Því sæded liggur enn nú í hløduNne, og þad ber enn nú eigi ávøxt, hverke víntred, fíkiutred, granatatred, og eigi heldur olíutred, enn frá þessum deige vil eg gefa blessan.

21. Og ord Drottins skede í annad sinn til Haggeum, á þeim fiorda og tuttugasta deige í mánudenum, og sagde:

22. Seg þú til Soro Babels, høfdingians í Juda, og seg þá: eg vil hræra himen og jørd.

23. Og umvelta stólum konungarikianna, og eydeleggia þann megtugu konungaríke heidingianna. Og eg vil bæde vøgnum og þeirra riddurum umbillta, so bæde hestar og menn skulu nidurfalla, hver fyrer annars sverde.

24. A sama tíma seger Drottinn Zebaoth: eg vil taka þig Soro Babel, Sealthiels son, minn þenara, seger Drottinn: og eg vil bakta þer sem einum signetshringi, því eg hefe utvaled þig, seger Drottinn Zebaoth.

Ender Prophetans Haggei.

# Prophetenn Sacharias.

## 1. Capitule.

1. A áttunda mánude þess annars árs Darii konungs, skede ord Drottins til Sachariam, sonar Barachia, sonar Jddo, þess propheta, og sagde:

2. Drottinn var hardla reidur ydar forfedur.

3. Og seg þú til þeirra: so seger Drottinn Zebaoth, snúed ydur til mín! seger Drottinn Zebaoth: so vil eg snúa mer til ydar, seger Drottinn Zebaoth.

4. Vered ei sem ydrir forfedur, hverum þeir fyrre prophetar predikudu, og søgdu: so seger Drottinn Zebaoth: snúed ydur frá ydar vondum vegum, og frá ydrum vondum gerningum! enn þeir hlyddu ei, og sí[nntu] eigi um mig, seger Drottinn.

5. Hvar eru nú ydrir fedur og spámenn? lifa þeir enn nú?

6. Er þad eigi so, ad mín ord, og minn rettur, sem eg baud fyrer mína þenara prophetana, hefir þad eigi komed yfer ydra forfedur? so ad þeir hefdu mátt snúa ser, og sagt, líka so sem Drottinn Zebaoth hafde í sinne ad gera oss, so sem ver geingum og gerdum, líka so hefir hann og gert oss.

7. Á þeim fiórda og tuttugasta deige, í þeim ellefta mánude, sem er Sebat mánudur, á þui ødru áre Darii konungs, skede ord Drottins til Sachariam Barachie sonar, Iddo sonar, prophetans, og sagde:

8. Eg sá um nottina, og sie þú! einn madur sat uppá einum raudum heste, hann stód vid á medal myrru triánna, á nockoru einge, og á bake honum voru rauder, brúner, og hvíter hestar.

9. Og eg sagde: minn Herra! hverer eru þesser? og eingellinn, sá sem talade vid mig, sagde til mín: eg vil vísa þer, hverer þesser eru.

10. Og sá madur sem stód vid under myrrutrienu á eingenu, svarade og sagde: þesser eru þeir sem Drottinn hefir útsendt ad reisa ígegnum landed.

11. Enn þeir svørudu eingle Drottins, sem stód vid under myrrutriánum, og søgdu: ver høfum reist ígegnum landed, og sie þú! ad øll jørdinn situr kirr.

12. Þá svarade eingell Drottins, og sagde: Drottinn Zebaoth! hvørsu leinge vill þú eigi miskuna þig yfer Jerusalem, og yfer borgerner Juda, hverum þú hefir vered reidur í þesse siøtíu ár?

13. Og Drottinn svarade einglenum, sem talade vid mig vinsamlegum ordum, og huggunarsamlegum ordum.

14. Og eingellinn, sá sem talade vid mig, sagde til mín: predika þú og seg þú: so seger Drottinn Zebaoth: eg hefe miøg vandlætt yfer Jerusalem og Zion.

15. Enn eg em miøg reidur yfer þeim dramblátu heidingium, þvi eg var litt reidur, enn þeir hiálpudu til ad fordiarfa.

16. Þar fyrer seger Drottinn so: eg vil snúa mer aptur til Jerusalem med miskunseme, og mitt hús skal uppbyggiast þar inne, seger Drottinn Zebaoth: þar til skal og sá mælesnúrur útgreidast í Jerusalem.

17. Og predika enn framar, og seg þú! so seger Drottinn Zebaoth: þad skal ganga mínum stødum vel aptur, og Drottinn skal hugga Zion aptur, og útvelia Jerusalem aptur.

18. Og eg upplypte mínum augum, og sá, og sie þú! þar voru fiøgur horn.

19. Og eg sagde til eingelsins, sem talade vid mig: hverer eru þesser? hann sagde til mín: þad eru þau horn, sem sundurtvistrad hafa Juda, ásamt med Israel og Jerusalem.

20. Og Drottinn vísade mer fiora smide.

21. Þá sagde eg: hvad vilia

þesser gera? hann sagde: þesser eru komner til ad afbuidta þau horn, sem ad sundurdreifdu Juda, so eingenn kunné ad upplypta sínu hőfde, so ad þeir burtsteypte heidingianna horn. hverer upplyptu hornenu yfer Juda land, til ad sundurdreifa þvi.

## 2. Capitule.

1. Og eg upplypte mínum augum, og sá, og sia þú! einn madur hafde einn mæ.ebrád í hendenne.
2. Og eg sagde: hvert fer þú? enn hann sagde til mín: ad eg mæle Jerusalem, og sia til hversu laung og víd hún skal vera.
3. Og siá þú! ad eingellenn sá ed vid mig talede, geck út, og einn annar eingell geck út ímóte honum.
4. Og sagde til hans: skunda þú burt, og tala til þess ungmennis, og seg þu! Jerusalem skal setinn verda án múrveggia, fyrer søkum mikels fiølda þeirra manna, og fenadar, sem þar inne skal vera.
5. Og eg vil vera einn glóande múrveggur þar umkring, seger Drottinn: og eg vil verá þar inne, og eg vil audsýna mig dyrdarsamlegann þar inne.
6. Hei! hei! flyed af nordurlandenu, seger Drottenn: þviad eg adskilde ydur í fió a vinda under himnenum seger Drottinn.
7. Hei Zion! þú sem byr hiá Babylons dotter, flý þu!
8. Þvi so seger Drottinn Zebaoth: hann sende mig til heidingianna, þeir sem ræntu ydur. Þeirra magt hefir einn enda, hver sem snerter ydur, hann snerter hans augastein.
9. Því siáed! eg vil veyfa mínne hende yfer þá, so þeir skulu verda þeim eitt herfang, sem þeim þiónad hafa, so þer skulud vita ad Drottinn Zebaoth hefir sendt mig.
10. Gled þig, og fagna þú Zions dotter! þviad siá þú! eg kem, og vil búa hiá þer, seger Drottinn.
11. Og á þeim tíma skulu marger heidingiar falla til Drottins, og skulu vera mitt fólk, og eg vil búa hiá þer, so þu skallt merkia, ad sá Drottinn Zebaoth sende mig til þín.
12. Og Drottinn skal erfa Juda í sitt hlutskipte, í þvi heilaga lande, og hann skal útvelia Jerusalem aptur.
13. Allt holld vere kirrt fyrer Drottne, þvi hann hefir uppteked sig af sínum heilogum stad.

## 3. Capitule.

1. Og mer var sýndur sá yppparste prestur Josua, standande fyrer eingle Drottins. Og Satan stód hiá hans hægre hende, ad standa ímóte honum.
2. Og Drottinn sagde til Satans: Drottinn straffi þig Satan! já, Drottinn straffi þig, sá sem útvalde Jerusalem. Er þetta eigi einn brandur sem af elldenum er útgripenn?
3. Og Josua var í óhreinum klædum, og stód fyrer einglenum,
4. Hver ed svarade og sagde til þeirra sem stódu framme fyrer honum: taked þaug óhreinu klæde frá honum. Og hann sagde til hans: siá! eg hefe teked þínar synder frá þer, og íklært þig hátídar klædum.
5. Og hann sagde: seted einn hreinann hatt á hans hofud. Og þeir settu einn hreinann hatt á hans hofud, og færdu hann í klæde, og eingell Drottins stód þar.
6 Og eingell Drottins vitnade fyrer Josua, og sagde:

7. So seger Drottinn Zebaoth: ef þú geingur á mínum vegum, og geymer mínar varðveitingar, þá skalt þú stiorna mínu húse, og geyma mína forgarda, og eg vil gefa þer af þessum sem her standa, ad þeir skulu vísa þer veigenn.

8. Heyr til Josua! þú æðste kennemadur, þú og þíner viner sem búa fyrer þer, því þeir eru ætíd undarleger. Því siá þú! ad eg vil láta minn þenara Zemah koma.

9 Því siáed! á þeim eina steine, sem eg lagda fyrer Josua, skulu vera sio augu. enn siá! eg vil úthøgga hann, seger Drottinn Zebaoth: og eg vil burttaka þess sama lands synder einn dag.

10. A þeim sama tíma, seger Drottinn Zebaoth: skal hver bioda ødrum til gests unger vínvidartre og fíkiutre.

## 4. Capitule.

1. Og eingellenn sá sem talade vid mig, kom aptur, og uppvakte mig, líka sem þá nockur er uppvakenn af svefne.

2. Og sagde til mín: hvad ser þú? eg sagde: eg se, og siá! ad þar stód ein lióssstika øll af gulle, og ein skál þar ofaná, þar voru sio lampar ofaná, og líka sio treckter vid hvern lampa.

3. Og tvo vidsmiørstre þar hiá, eitt á hægre sídu skálarinnar, og annad á vinstre sídu.

4. Og eg svarade og sagde til eingelsins, sem talade vid mig: minn Herra! hvad er þad?

5. Og eingellinn, sá sem talade vid mig, svarade og sagde til mín: veist þú eigi hvad þad er? og eg sagde: nei minn Herra!

6. Og hann svarade og sagde til mín: þad er ord Drottins um Soro Babel, þad skal hvørke ske med magt ne hernade, helldur fyrer minn anda, seger Drottinn Zebaoth.

7. Hvad ert þú, þú stóra fiall! hvert þó vera skal eitt slettlende fyrer SoroBabel? og hann skal uppføra þann fyrsta stein, so menn skulu hrópa: Gud gefe til lucku! Gud gefe til lucku!

8. Og ord Drottins skedi til mín, og sagde:

9. SoroBabels hendur løgdu grundvøllenn þessa húss, hans hendur skulu og fullkomna þad, so þer skulud vita ad Drottinn hefir sendt mig til ydar.

10. Því hver er sá sem foraktar þessa litla daga? á hverium ad menn skulu þó gledia sig, og siá þann mælesnúrad, í SoroBabels hende, med þeim sio, sem eru augu Drottins, hver ad reisa ígegnum þad heila land.

11. Og eg svarade og sagde til hans: hvad eru þau tvø oliutre, til hægre og vinstre sídu lióssastikunnar?

12. Og eg svarade í annad sinn, og sagde til hans: hvad eru þær tvær greiner þess vidsmiørs vidartres, sem þar standa hiá þeim tveimur gylltum lióssastærum, med hverium ad menn taka skørenn af þeim gylltu lømpum.

13. Og hann sagde til mín: veist þú eigi hvad þad er? enn eg svarade: nei, minn Herra!

14. Og hann sagde: þad eru þau tvø oliuvidar børn, sem þar standa hiá stiornaranum alls landsins.

## 5. Capitule.

1. Og eg upplypte mínum augum enn einusinne, og sá, og siá þú! þar var eitt fliúganda bref.

2. Og hann sagde til mín: hvad ser þú? eg svarade: eg se eitt fliúg-

anda bref, sem er tuttugu alna
langt, og tíu alna breidt.
3. Og hann sagde til mín, þad
er sú bølvan sem ut geingur yfer
allt landed, þvi aller þiofar verda
sagder frómer epter þessu brefe, og
aller meinsærismenn verda sagder
frómer epter þessu brefe.
4. Enn eg vil þad framm koma
láta, seger Drottinn Zebaoth, ad
þad skal koma yfer þiessins hús,
og so leka yfer þeirra hus sem sveria
falsklega vid mitt nafn, og þad
skal blifa i þeirra húse, og eyda
þvi med þess stockum og steinum.
5. Og eingellenn, sem talade
vid mig, geck út, og sagde til mín:
upplyst þú þinum augum, og siá!
hvad geingur þar út?
6. Og eg sagde: hvad er þad?
og hann sagde: eitt epha geingur
út; og hann sagde: þad er þeirra
skickan í øllu þvi lande.
7. Og siá! þar barst framm eitt
centner blý, og þar var ein kvinna
sem sat i epha.
8. Og hann sagde: þetta er sú
óguðlega lærdomur, og hann kastade henne midt í epha, og varpade
þeim blýhnud ofana holed.
9. Og eg hóf upp mín augu,
og sá, og siá þú! þar geingu tvær
konur út, og høfdu vænge, sem
vindurenn bar, og þad voru
vænger sem storks vænger, og þær
færdu þad epha á millum jardar
og himens.
10. Og eg sagde til eingelsins,
sem talade vid mig: hvert flytia
þær þad epha burt hedann?
11. Og hann sagde til mín, ad
hønum uppbiggist eitt hús, og tilreidist í landenu Sinear, og setiest
þar á sinn grundvoll.

## 6. Capitule.

1. Og eg upplypte mínum augum
enn einu sinne, og sá, og siá þú!
þar voru fiórer vagnar sem frammgeingu á millum tveggia fialla,
enn þau sømu fiøll voru af kopar.
2. Fyrer þeim fyrsta vagne voru
rauder hestar, enn fyrer þeim ødrum vagne voru brúner hestar.
3. Fyrer þeim þridia vagne voru
hvíter hestar, og fyrer þeim fiorda
vagne voru skiótter hestar sterker.
4. Og eg svarade og sagde til
eingelsins, sem talade vid mig:
minn herra! hverer eru þesser?
5. Eingellenn svarade, og sagde
til mín: þetta eru þeir fiórer vindar under himnenum, sem koma
framm, ad þeir skulu framm ganga
fyrer allra landa stiórnara.
6. Þar sem þeir svørtu hestarner
voru fyrer, þeir geingu móte nordre, og þeir hvítu hestar geingu
epter þeim, enn þeir skiottu geingu
móte sudre.
7. Þeir sterku útgeingu og drogu
umkring, so þeir færu ígegnum øll
lønd. Og hann sagde: fared íburtu,
og ferdest ígegnum landed, og þeir
foru ígegnum landed.
8. Og hann kallade á mig og
talade til mín og sagde: siá þú!
þeir sem ferdast móte nordrenu, þeir
koma mínum anda til ad hvílast í
landenu móte nordre.
9. Og ord Drottins skede til
mín, og sagde:
10. Tak af þessum herteknu,
sem eru af Heldai, og af Tobia, og
af Jedaia, og kom þu sama dag, og
gack þú inn í Josia, Zophonie sonar hús, hverer komner eru fra
Babylon.
11. Enn tak silfur og gull, og
ger koronur, og set þær uppá høfud
Josua, Jozadaks sonar, þess ypparsta prests.
12. Og seg þú til hans: so seger
Drotten Zebaoth: siá þu! þar er

einn mann sem heiter Zemah, þvi under honum skal þad vaxa, og hann skal byggia mustere Drottins.

13. Já, mustere Drottins skal hann byggia, og bera prydena, og hann skal sitia og drottna á sínum stóle, hann skal og vera prestur á sínum stóle, og þar skal vera fridur á millum þeirra beggia.

14. Og þessar koronur skulu tilheyra þeim Helem Tobia, Jedaia, og Hen, Zophonias syne, til einnar minningar í mustere Drottins.

15. Og þeir skulu af fiarlægd koma, sem byggia mustere Drottins, þá skulu þeir vid kannast, ad Drottenn Gud Zebaoth hefir sendt mig til ydar. Og þad skal ske, ef þer viled hlyda raud Drottins ydvars Guds.

## 7. Capitule.

1. Og þad skede á þvi fierda Darii kongs áre, ad ord Drottins skede til Sachariam, á þeim fierda deige þess níunda mánadar, sem kallast Chisleu.

2. Þá S[illegible]zer og Regem, Melech og þeirra [illegible] voru sender til Bethel, ad tilbidia fyrer Drottne.

3. Ad segia til prestanna sem voru kringum hús Drottins Zebaoth, og til spámannanna: skal eg enn nú gráta á þeim fimta mánude, og enn hallda mer frá, so sem eg hefe gert nú í nockur ár?

4. Og ord Drottins Zebaoths skede til mín, og sagde:

5. Tala þú til alls fólksins í landenu og til prestanna, og seg þú: Þá þer fostudud og gretud, í þeim fimta, og í þeim siounda mánude, um þesse siotju ár, hafed þer þá jafnann fastad fyrer mig?

6. Eda þá þer átud og druckud, hafed þer þá eigi eted og drucked fyrer ydur sialfa?

7. Er þetta eigi þad, sem Drottinn lett predika fyrer þá frammförnu propheta, þá Jerusalem var alsetenn med fólke, og hafde alls nægter, med sínum stodum þar umkring, og þann tíd ad þar bió fólk, bæde móte sudre, og so í dølunum.

8. Og ord Drottins skede til Sachariam, og sagde:

9. So seger so Drottinn Zebaoth: dæmed rett, gered gott, og vered miskunsamer, hver sínum brodur.

10. Og gered hverke eckium, fodurlausingium, útlendskum, edur fátækum, nockurn órett, og eingenn skal hugsa nockud vondt sínum brodur í sínu hiarta!

11. Enn þeir villdu ei adgiæta, og sneru bakenu vid mer, og stoppudu aptur sín eyru, so þeir skylldu eigi heyra.

12. Og gerdu sín hiertu sem einn Adamas, ad þeir skylldu eigi heyra lögmáled, og ordenn, hver Drottenn Zebaoth sende í sínum anda, fyrer þá fyrre prophetana. Hvar af so stór reide Drottins Zebaoths er komenn.

13. Og þad er so sked sem þad var predikad, og þeir heyrdu eigi: so villde eg og eigi heyra, þá þeir kölludu, seger Drottinn Zebaoth.

14. So hefi eg sundurtvístrad þeim á medal allra heidingia, þeirra sem eigi þecktu þá, og landed vard eyde epter þá, so ad eingenn ferdadest, edur bió þar inne, og þad gósuga land gerdest ad audn.

## 8. Capitule.

1. Og ord Drottins skede til mín, og sagde:

2. So seger Drottinn Zebaoth: eg hefe vered mióg vandlátur vid Zion, og eg hefe med stórre reide vered vandlátur vid hana.

3. So seger Drottinn: eg sny mer aptur til Zion, og vil búa í Jerúsalem, so Jerúsalem skal kallast sannleiksins stadur, og þess Drottins Zebaoths fiall, eitt fiall helgedómsins.

4. So seger Drottinn Zebaoth: Þar skulu enn nú þer epter búa í Jerúsalems strætum, gamler menn og kvinnur, og þeir sem ganga vid staf, af stórre elle.

5. Og stræte stadarens skulu vera full af pilltum og stulkum, sem þar skulu leika á hennar strætum.

6. So seger Drottinn Zebaoth: þyke þeim soddann vera ómøgulegt, fyrer augum þessa epterblifna fólks í þessare tíd, skyllde þad þar fyrer vera ómøgulegt fyrer mínum augum? seger Drottinn Zebaoth.

7. So seger Drottinn Zebaoth: siá þú! eg vil frelsa mitt fólk frá því lande móte austre, og frá því lande móte solarennar nidurgangs.

8. Og eg vil færa þad út hingad, ad þad skal búa í Jerúsalem. Og þeir skulu vera mitt fólk, og eg vil vera þeirra Gud, í sannleika og rettlæte.

9. So seger Drottinn Zebaoth: styrked ydrar hendur, þer sem heyred þesse ord, á þessare tíd, fyrer mun spámannanna, á þeim deige sem grundvøllurenn er lagdur á húse Drottins Zebaoth, ad musterid verde uppbygt.

10. Þviad fyrer þessa daga var erfide manna forgefens, og dyranna aeside til einskis, og þeir høfdu engann frid, fyrer hørmung, sem út og inngeingu, helldur let eg alla menn fara, hvern imót sínum náunga.

11. Enn nú vil eg eigi gera vid þetta epterblifna fólk, so sem á þeim fyrre døgum, seger Drottinn Zebaoth.

12. Helldur skulu þeir vera fridarens sæde. Víntred skal gefa sinn ávøxt, og landed gefa sinn gróda, og himenenn skal gefa sína døgg, og eg vil láta þá sem epter eru ordner af þessu fólke, allt þetta eignast.

13. Og þad skal ske, ad líka sem þer af Juda húse, og af Jsraels húse, vorud ein bølvan á medal heidingianna, so vil eg frelsa ydur, ad þer skulud vera ein blessan, óttest eigi, og styrked ydar hendur!

14. So seger Drottinn Zebaoth: líka sem eg þeinkte ad plága ydur, þá ydrir fedur reittu mig til reide, seger Drottinn Zebaoth: og mig angrade þad eigi.

15. So hugsa eg nú þar aptur á mót, ad gera vel til, á þessum døgum, Jerúsalem og húse Juda, ad eins óttest eigi!

16. Enn þetta er þad sem þer skulud gera, hver einn tale sannende vid annann, og dæmed rett, og seted frid í ydrum portdyrum.

17. Og eingenn þeinke nockud vondt í sínu hiarta á móte sínum náunga, og elsked eigi falska eida, því eg hata allt soddann, seger Drottinn!

18. Og ord Drottins Zebaoths skede til mín, og sagde:

19. So seger Drottinn Zebaoth: sú fasta, fiorda, fimmta, fiounda og tiunda manadar, skal vera Juda huse til glede og fagnadar, og til gladlegrar árshátídar, elsked ad eins sannleika og frid.

20. So seger Drottinn Zebaoth: þar skal enn nú koma mikid fólk, og margra stada borgarmenn.

21. Og borgarmenn einnrar borgar skulu fara til þeirra annarar, og segia: latum oss fara og

tilbidia fyrer Drottne, og leita
Drottins Zebaoths, ver vilium fa-
ra med ydur.

22. So skal margt fólk og heid-
ingiar koma í höpum samann, til
ad leita Drottins Zebaoth í Jeru-
salem, ad tilbidia fyrer Drottne.

23. So seger Drottinn Zeba-
oth: á þeim tíma skulu tíu menn,
af allrahanda tungumálum heid-
ingianna, grípa í stacks skaut eins
þess sem er af Juda, og segia: ver
vilium fara med ydur, þvi ver
heyrum, ad Gud er med ydur!

## 9. Capitule.

1. Þetta er sú byrdenn, af hverre
Drottinn sagde: yfer landed Ha-
drach, og yfer Damascum, uppá
hvert þad treyster (þviad Drottinn
litur yfer mennena, og yfer allar
Israels ætter.)

2. Og til Hamath, sem er í nánd
henne, yfer Tyrum og Zidon, sem
eru miøg vísar.

3. Þvi Tyrus uppbygger kasta-
la, og safnar silfre sem sande, og
gulle sem saur a strætum.

4. Enn siá þú! Drottinn skal
fordiarfa hana, og slá hennar
magt, þa sem hún hefir uppá siøn-
um, ad hún skal vera, so sem sú
sem uppbrennd er med ellde.

5. Nær Ascalon ser þad, þá skal
hún óttast, og Gasa skal hafa mikla
angist, þar til skal Ekron hrygg
verda, nær hún sodbann ser þvi
þad mun verda úte um konungenn
af Gasa, og menn munu eigi búa
í Ascalon.

6. Utlendsker skulu búa í Asdod,
og eg vil burttaka drambseme þeir-
ra Philistea.

7. Og eg vil þeirra blód taka
frá þeirra munne, og þeirra svi-
virdingar frá þeirra tønnum, so
þeir skulu og so epterblífa til hand-
da vorum Gude, ad þeir verde sem
høfdingiar í Juda, og Ekron so
sem Jebusitar.

8. Og eg vil siálfur vera her-
búder íkringum mitt hús, so ad þar
skal eigi þørf gerast ad standa edur
ganga framm edur aptur, so ad
þeir drífararner skulu eigi fram-
armeir koma yfer þá, þvi eg hefe
nu sed til þeirra med mínum aug-
um.

9. Enn þú dotturenn Zion! gled
þig miøg, og þú dotter Jerusalem!
fagna þu, siá þú! þinn konungur
kemur til þín, rettlátur, og einn
hiálpare, fátækur, og rídur a einn-
re øsnu, og á einum ungum øsnu-
fola.

10. Þviad eg vil burttaka vagna-
na frá Ephraim, og hestana frá
Jerusalem, og stridsbogarner sku-
lu ísundurbrotner verda. Þviad
hann skal kenna frid á medal heid-
ingianna, og hans ríke skal vera
frá einu hafenu til annars, og frá
vatnenu, inn til veralldarennar
enda.

11. Þú lætur einnenn, fyrer
blód þíns sáttmála, þína fangara
út af grøfiunne, hvar ecke vatn inne
er.

12. So snúed ydur nú til hins
stirka kastalans, þer sem í vonenne
liggeð fangner! þvi eg vil í dag
kunngera þad, og bitala þer tvø-
fallt.

13. Þviad eg hefe uppspannad
mer Juda til eins boga, og tilbúed
Ephraim, og eg vil uppvekia þín
børn Zion, yfer þín børn Gríckland,
og eg vil gera þig sem sverd eins
risa!

14. Og Drottinn mun opinn-
berast yfer þeim, og hans ørvar
munu útfara sem elldingar, og
Drottinn Drottinn skal blása í

basunurnar, og hann skal framm-
ganga sem stormur úr sudre.
15. Drottinn Zebaoth skal vard-
veita þá, so ad þeir ete, og under
sig varpe med slaungu steine, ad
þeir drecke og skalbire, so sem af
víne, og fuller verde sem bikarar,
og so sem hyrning á altare.
16. Og Drottinn þeirra Gud
mun hiálpa þeim á þeirre tíd, so
sem hiördu síns fólks, þvi helger
steinar skulu uppreisast í hans
lande.
17. Þvi hvad hafa þeir godt
framm yfer annad fólk, og hvad
fegra enn adrer menns korn upp-
fæder unga sveine, og nytt vín
meyarnar.

## 10. Capitule.

1. Þar fyrer bided nú um haust
regn af Drottne, so mun Drottinn
gera ský, og gefa ydur noga dagg,
til alls gróda á jördunne.
2. Þviad afgudernar tala eigi
utann hegoma, og sannsagnar
mennerner siá eigi utann lygar,
og segia hegoma drauma, og þeir-
ra huggsvalaner eru ecke. Þvi fara
þeir villt sem ein hiörd, og eru
magnlauser, af þvi þar er eingenn
hirder.
3. Mín reide er ordenn grimm
yfer hirdarana, og eg vil vitia
hafranna, þvi Drottinn Zebaoth
skal vitia sinnar hiardar, sem er,
hussens Juda. Og hann skal til-
búa þá, so sem pryddann hest til
bardaga.
4. Hyrningenn, naglarner, stríds-
bogenn, og drifararner skulu aller
koma burt frá þeim.
5. Þó skulu þeir vera samt sem
Risar, tredande gatna saurenn í
bardögum, og þeir skulu beriast.
Þviad Drottinn skal vera med
þeim, so ad riddararner skulu til
skammar verda.
6. Og eg vil styrkia húsed Juda,
og frelsa húsed Josephs, og eg vil
innsetia þá aptur, þvi eg miskunna
[illegible] þá, og þeir skulu blífa
sem þeir voru, á þeirri tíma, ed hann
de eigi burthrunded þeim, [illegible]
Drottinn þeirra Gud vil bæ[illegible]
ra þá.
7. Og Ephraim skal vera sem
einn rise, og þeirra hiarta skal
glediast, líka sem af víne. Hvar
uppá þeirra börn skulu siá, og gle-
dia sig, ad þeirra hiörtu skulu fag-
na í Drottne.
8. Eg vil blísa ad þeim, og sam-
ansafna þeim, þvi eg vil frelsa þá,
og þeir skulu fiölga sig, so sem þeir
juku sig fyrre.
9. Og eg vil nidursá þeim á
medal fólksins, so þeir skulu minn-
ast mín í fiarlægum löndum, og
þeir skulu lifa med sínum börn-
um, og koma aptur.
10. Þvi eg vil færa þá aptur af
Egyptalande, og eg vil safna þeim
úr Assyria, og eg vil færa þá í Gi-
leadlande, og til Libanon, so ad
menn skulu eigi finna þá.
11. Og hann skal ganga igegn-
um siöenn angistarinnar, og slá
bylgiurnar í siönum, so ad öll þau
diup vatnsins skulu uppþorna, þá
skal dramb þeirra í Assyria nidur-
brickiast, og sá veldisspróte í E-
gyptalande skal afláta.
12. Eg vil styrkia þá í Drottne,
ad þeir skulu ganga í hans nafne,
seger Drottinn.

## 11. Capitule.

1. Uppluk þinum dyrum þú Li-
banon! so ad elldurenn brenne þín
cedrustré.
2. Gráted þer grenetren! Þviad
cedrusviderner eru fallner, og hú

prydelega bygginginn er um koll.
Fleigenn. Gráted þer eikurnar í Basan! þvi sa sterke skogur er upphöggenn.

3. Menn heyra, ad hirdsrarner gráta, þvi þeirra veglega bygging er nidurbrotenn, menn heyra öskur þeirra ungu leonanna, þvíad Jordans-prackt er eydelögd.

4. So seger Drottinn, minn Gud, geymed slåturs saudena!

5. Þviad þeirra Herrar slátra þeim, og hallda þad fyrer enga synd, þeir selia þá, og segia: lofadur se Drottinn, eg em nú ríkur! og þeirra hirdarar hlífa þeim eigi.

6. Þar fyrer vil eg og eigi framarmeir spara þá innbyggiarana í landenu, seger Drottinn. Og siá þú! eg vil láta fólked koma, einn og serhvern í annars hendur, og í síns konungs hendur, þad þeir nidurslåe landed, og eg vil eigi hiálpa þeim frá þeirra hende.

7. Og eg geymde slåturs saudena, fyrer þeirra vesölu sauda skulld, og eg tók stafe til mín, þann eina kallade eg sætleika, enn þann annann kallade eg sorg, og geymde saudena.

8. Og eg eydelagde þriá hirdara í einum mánade, þvi eg kunne ei ad líða þá, so villdu þeir og ei helldur hafa mig.

9. Og eg sagde: eg vil eigi gæta ydar, hvad sem deyr, þad deye, hvad sem vanmegnast, þad vanmegnest, og þeir sem epter eru, ete hver annars kiøt.

10. Og eg tók minn staf sætleika, og sundurbraut hann, ad eg burttæke minn sáttmala, sem eg hafde bunded vid allt fólk.

11. Og hann var burttekenn þann sama dag. Og þeir fátæku sauder, sem helldu sig vid mer, þeir merktu þar af, ad þad var ord Drottins.

12. Og eg sagde til þeirra: líkar ydur þad, þá bered framm so miked sem eg gillde, enn viled þer eigi, þá láted þad vera. Og þeir vogu so miked sem eg gillte, þriátíu silfurpeninga.

13. Og Drottinn sagde til mín: varpe þeim burt, so þeir gefest pottamakurum, ah! ein merkeleg summa, hverrar verdur eg var halldenn af þeim, og eg tók þá þriátíu silfurpeninga, og kastade þeim í hús Drottins, so þeir skylldu gefast pottamakaranum.

14. Og eg sundurbraut minn annann staf, sorg, so eg burttæke bræðraskapenn í millum Juda og Israel.

15. Og Drottinn sagde til mín: tak enn til þín verkfære eins heimskulegs hirders.

16. Þvi siá þú! eg vil uppvekia hirdara í landenu, sem eigi skulu leita epter þvi vanmegnuda, eigi vitia þess sundurslegna, og ei græda þad særda, eigi helldur hafa huginn fyrer þvi heilbrigda. Enn kisted af þvi feita munu þeir eta, og ísundurrífa þess klaufer.

17. Vei skúrgoda hirdurum! þeir sem forláta hiørdenna: sverded kome á þeirra armlegg, og á þeirra hægra auga, þeirra armur skal uppvisna, og þeirra hægra auga skal myrkast.

## 12. Capitule.

1. Þetta er sú byrdenn Drottins ords yfer Israel, seger sá Drottinn, sem utbreider himenenn, og grundvallar jördena, og skapar mannsins anda í hönum.

2. Siá þú! eg vil gera Jerusalem til eins hrösunar bikars øllu fólke þar umkring, þvi þad skal og

gillda Juda, nær Jerusalem verd ur umkringd.

3. Enn þó á þeirre sømu tíd, vil eg gera Jerusalem ad einum þung um steine øllu fólke. Aller þeir sem vilia burtu bera hann, þeir skulu sig þar á sundurskera, þvi aller heidingiar á jørdunne skulu sam annsafnast móte hønum.

4. Á þeim tíma, seger Drottinn: vil eg alla hesta gera ſælna, og þeirra riddara hrædda, enn eg vil hafa mín augu openn yfer Jerusalem, og alla fólksins hesta vil eg med blindleik plaga.

5. Og høfdingiar í Juda skulu segia í sinum hiørtum: leted eins kostar Jerusalem borgarmenn vera ørugga, í Drottne Zebaoth þeirra Gude.

6. Á þeim tíma, vil eg gera Juda høfdingin til eins brennanda ofns í trenu, og ad einu blyse í stráe, so þeir uppeyde, bæde til hægre og vinstre sydu, øllu fólke, allt umkring, og Jerusalem skal frammveiges blifa á sinum samastad í Jerusalem.

7. Og Drottinn skal frelsa heimele Juda, lika sem á fyrre tíma, uppá þad, ad Davids hús skal ei hátt hrósa ser, eigi helldur Jerusalems borgarmenn, mót Juda.

8. Á þeirre tíd mun Drottinn vardveita þá borgarmennena í Jerusalem, og þad mun ske, ad hver sem veikur er á þeim tíma, á medal þeirra, hann skal vera sem David, og Davids hús skal vera sem Guds hús, lika sem eingell Drottins fyrer þeim.

9. Og á þeim tíma vil eg þeinkia ad afmá alla heidingia, sem farner eru mót Jerusalem.

10. Enn yfer Davids hús, og yfer borgarmenn í Jerusalem, vil eg ausa anda nádar og bænar. Þviad þeir munu siá mig, hvern þeir hafa ígegnum stunged, og þeir skulu gráta yfer hønum, lika sem menn gráta yfer einum einka syne, og þeir skulu hryggia sig yfer hønum, lika sem menn hryggia sig yfer einu frumgetnu barna.

11. Á þeim tíma skal ein mikel sorgar klogun vera í Jerusalem, lika sem þar var hia Hadadrimon, á þeim velle Megiedo.

12. Og landed mun klaga sig, hver ættþáttur fyrer sig, ættenn Davids húss serílage, og þeirra húsfrúr serílage. Ætt Nathans húss serílage, og þeirra húsfrúr serílage.

13. Ætt hússens Levi serílage, og þeirra húsfrur seríloge. Simei ætt serílage, og þeirra husfrúr serílage.

14. Lika so allar ætter þær epter eru ordnar serhver ein serílage, og þeirra húsfrúr og so serílage.

## 13. Capitule.

1. Á þeim tíma skal Davids hús, og borgarmenn í Jerusalem, hafa einn frían opinn brunn á móte syndum og óhreinleika.

2. Á þeim tíma, seger Drottenn Zebaoth, vil eg afguda nøfnenn afmá af landenu, so menn skulu eigi þadann frá minnast þeirra, þar med vil eg og útdrifa þá propheta og óhreinu anda af landenu.

3. Þad skal ganga so til, ef nockur spaer framarmeir, þá skulu hans fader og moder, sem hann fædt hafa, segia til hans: þú skallt eigi lifa, þvi þu talar lygi í nafne Drottins, og so skulu hans fader og moder, sem ólu hann, ígegnum leggia hann, þá hann spáer.

4. Þvi þad skal ske á þeim tíma, ad spámennerner skulu verda ad skømm med þeirra sionum, nær

þeir spá þar um. Og þeir skulu eigi mer iklædast loðnum kápum, með hverium þeir sviki.

5. Helldur skal hann segia: eg er eingenn spámaður, helldur akurverksmaður, því eg hefe mønnum þionað af mínum ungdóme.

6. Og ef maður seger til hans: hvað er það fyrer sárum í þínum høndum? þá skal hann svara: so er eg slegenn í þeirra húsum sem mig elska

7. Þú sverd! verþú til reide yfer minn hirdir, og yfer þann mann sem mer nálægastur er! seger Drottenn Zebaoth. Siá þú hirderenn, so mun hiorðen sundurdreifast, so vil eg venda minne hende til þeirra smáu.

8. Og það skal ske, að í hveriu lande sem að eru tveir hluter (seger Drottinn), þeir skulu upprætast og forganga, enn sá þriðie partur skal epter verða þar inne.

9. Og þann þriðia sama part vil eg ígegnum elldenn leiða og hreinsa, líka sem menn hreinsa silfur, og fægia það, so sem menn fægia gull. Þeir munu þá kalla á mitt nafn, og eg vil bænheyra þá, eg vil segia, það er mitt fólk, og þeir munu segia, Drottinn minn Guð!

## 14. Capitule.

1. Sjáið! tímenn Drottins kemur, að menn skulu skipta þínu herfange í þer.

2. Því að eg vil safna allrahanda heiðingium til bardaga móte Jerusalem. Og staðurenn skal verða yferunnenn, húsenn rænd, og kvinnurnar skammaðar. Og helmingur staðarins skal hertekenn burtfærast, enn það fólk sem epter verður, skal eigi af staðnum upprætast.

3. Enn Drotten mun draga úr, og stríða ímót þeim sømu heiðingium, so sem hann plagar að stríða á stríðsalldar tíðinne.

4. Og hans fætur skulu standa, á þeim sama tíma á fiallenu Oliveti, hvert eð liggur hiá Jerusalem mót austre, og Oliveti fiall skal ísundurklofna í tvo parta, frá austre, og allt til vesturs, miøg vítt hver partur frá øðrum, so sá eine helmingur fiallsins skal gefa sig ímót norðre, enn sá annar ímót suðre.

5. Og þer skuluð flýa fyrer svoddann dal, ímillum minna fialla, því dalurenn ímillum fiallanna skal taka allt til Azal, og þer skuluð flýa, so sem þer flúðuð fyrer iarðskiálftanum í fyrretíð, á døgum Usias Juda kongs. Þá skal Drottinn Guð minn koma, og aller heilager með þer.

6. Á þeim tíma skal þar ecke liós vera, helldur kulde og frost.

7. Og þar skal vera sá einn dagur hver að Drottne er kunnur, hverke dagur ne nótt, enn að kvollde skal vera liós.

8. Á þeim tíma skulu rennande vøtn flióta af Jerusalem, helftenn í sióinn mót austre, og ønnur helftenn til þess ytsta hafs, og það skal vara bæðe sumar og vetur.

9. Og Drottinn skal vera kongungur yfer øllum løndum. Á þeim tíma skal Drottinn vera að eins einn, og að eins eitt hans nafn.

10. Og menn skulu ganga umkring í øllu landenu, so sem á einum slettum velle, frá Gibea, og til Rimon, sunnann til við Jerusalem. Því hún skal upphefiast, og vera í sínum stað, frá Benjamins porte, allt til staðar þess fyrsta ports, að því hyrningar portenu, og frá Ha-

naneels turne, og allt til konungsins vijnþrugu.

11. Og þar skulu menn inne búa, og þar skal eingenn bølvan framarmeir vera, þviad Jerúsalem skal med øllu éttalaus búa.

12. Og þad skal vera sú plága, med hverre ad Drottinn skal plága allt þad fólk, þad sem stridt hefir ímót Jerusalem; þeirra holld skal visna, á medann þeir standa enn á sínar fætur, og þeirra augu skulu visna í augnatoftunum, og þeirra tungur skulu rotna í munnenum.

13. Á þeim tíma skal Drottenn uppvekia mikid upphlaup á medal þeirra, ad einn skal taka annars hønd, og leggia sína hønd á hins annars hønd.

14. Þviad Juda skal strída ímót Jerusalem, og allt heidingia gots, sem þar íkring er, skal samansafnast, gull, silfur, og klæde ofur mikel.

15. Og so skal þesse plága koma yfer hestana, múldyrinn, Ulfalldana, asna, og allskyns dyr, sem eru í þeim sama her, líka sem þeir adrer eru plágader.

16. Og aller þeir sem epter eru ordner á medal allra heidingia, sem ferdubust mót Jerusalem, þeir skulu hvert ár her uppkoma, ad tilbidia konungenn, þann Drottinn Zebaoth, og ad hallda laufskála hátídena.

17. Enn hver sú ættkvísl á jørdunne sem ei kemur upp til Jerusalem, ad tilbidia konungenn, þann Drottinn Zebaoth, yfer þá skal eigi rigna.

18. Og ef Egyptanna ættkvísler ferdast ei upp, og koma eigi þá skal þad eigi rigna yfer þá. Þad skal vera sú plágann, med hverre ad Drottinn skal plága alla heidingia, sem eigi uppkoma ad hallda laufskála hátídena.

19. Þviad þad skal vera synd fyrer Egyptana, og alla heidingiana, sem ei koma upp ad hallda þá laufskála hátíd.

20 Á þeim tíma mun tilreiding hestanna vera heilog fyrer Drottne, og katlarner í húse Drottins skulu verda sem munnlaugar fyrer alltarenu.

21. Þviad aller katlar, bæde í Jerusalem og Juda, skulu þeim Drottne Zebaoth helgader verda, so aller þeir sem offra vilia, skulu koma, og taka þá somu og matgera í þeim; og þar skulu her epter erger Cananei vera í Drottins Zebaoths húse, á þeirre tíd.

Ender Prophetans Sachariæ.

# Prophetenn Malachias.

## 1. Capitule.

1. Þetta er sú byrde sem Drottinn talade ímot Israel fyrer Malachiam.

2. Eg elska ydur, seger Drottinn. Enn þer seged so: hvar med elskar þú oss? er Esau eigi Jacobs broder, seger Drottinn? þó lika vel elskade eg Jacob.

3. Og hatade Esau, og gerde hans fiallbyggd í eyde, og hans arf ad dreka eydu.

4. Og ef Edom ydur e segjande: ver erum fordiarfader, enn ver vilium aptur uppbyggia þad sem

í eyde er. So seger Drottenn Zebaoth: ef þeir uppbyggia, þá vil eg nidur brióta, og þad skulu kall ast þaug fordæmdu landamerke, og eitt fólk hvoru Drottinn er reidur æfinlega.

5. Þad skulu ydar augu siá, og þer skulud segia: Drottenn er veglegur í Israels landamerkium!

6. Sonurinn skal heidra sinn fødur, og þenarinn sinn herra; em eg nu fader, hvar er þá minn heidur? em eg herrann, hvar óttast menn mig? seger Drottenn Zebaoth til ydarra presta, sem forakta mitt nafn. So seged þer: hvar med forøktum ver þitt nafn?

7. Þar med, ad þer offred óhreint braud á mitt alltare So seged þer: hvar med offrum ver þer óhreint? Þar med, ad þer seged: bord Drottens er fyrerliteð.

8. Og nær þer offred nockru blindu, so má þad eigi vondt heita, og nær þer offred nockru høltu, edur siuku, þá má þad eigi helldur heita vondt. Ber þú þínum høfdingia, hvad gillder, þú verdur hønum ei þacknæmur? edur hann verd ur þína persónu eigi siáande, seger sá Drottinn Zebaoth.

9. So bided nú Gud, ad hann se oss nádugur, þviad soddan er sked af ydur. Þeinked þer, ad hann mune álíta ydrar persónur, seger Drottenn Zebaoth?

10. Hver er og á medal ydar sem lokar einum dyrum? þer uppkveiked og eigi elld á minu alltare forgefens; eg hefe enga þocknan til ydar, seger Drottinn Zebaoth, og matoffur af ydrum høndum er mer eigi þacknæmt.

11. Enn mitt nafn skal vera dyrdarlegt á medal heidingianna, frá uppgange sólarennar, og til hennar nidurgaungu, og þar skal geraſt reykelse í øllum stødum í minu nafne, og offrast eitt hreint matoffur.

12. Enn þer vanhelged þad, í þvi, ad þer seged: bord Drottins er óheilagt, og hans offur er forsmád med hans mat.

13. Og þer seged: siá! þad er eigi ꞇtan ervide, og þer varped þvi so í vind, seger sá Drottenn Zebaoth. Og þer offred þvi sem rænt er, hallt og siúkt, og af þvi offred þer matoffre. Skylde slíkt vera mer þacknæmt af ydrum høndum? seger Drottenn.

14. Bølvadur se sá svikare sem karlkyns befir í sinne hiørd, og þá hann heiter nockru, þá offrar hann Drottine, þad sem eigi duger. Þvi eg em einn mikill konungur, seger sá Drottenn Zebaoth, og mitt nafn er hrædelegt á medal heidingianna.

## 2. Capitule.

1. Og nú þer prestar! þetta bód snerter ydur.

2. Ef þer eigi heyred þad, og legged þad eigi helldur á hiarta, ad þer skulud gefa minu nafne dyrdina, seger sá Drottenn Zebaoth, þá skal eg senda bølvan á medal ydar, og bølva ydar blessun, já, eg skal bølva þeim, fyrer þvi, ad þer villdud ei taka þad ydur til hiarta.

3. Siá, eg vil formæla ydur, og ydru sæde, og kasta ydra helgra daga saur í ydart andlit, og þad skal loda vid ydur.

4. So skulud þer þá fornema, ad eg sende soddan bod til ydar, so þad skylde vera minn sátmále vid Levi, seger sá Drottinn Zebaoth.

5. Þviad minn sátmále var med hønum, til lífs og fridar, og eg

gafst hønum ótta, ad hann óttadest mig, og hræddest fyrer mínu nafne.

6. Sannleikans løgmál var í hans munne, og þar var ei neitt vondt funded í hans vørum. Hann geck fyrer mer fridsamlega og rettelega, og snere mørgum fra syndum.

7. Því prestsins varer skulu varðveita lærdómenn, so menn skulu sækia løgmáled af hans munne, því hann er Drottins Zebaoths eingell.

8. Enn þer erud geingner af veigenum, og hneixled marga í løgmálenu, og þer hafed sundurbrotid Levi sátmála, seger sá Drottinn Zebaoth.

9. Þar fyrer hefe eg og gert ydur ad foraktan, og ad óvirdingu fyrer øllu fólke, af því ad þer helldud eigi mínum vegum, og hafed manngreinar álit í løgmálenu.

10. Þvíad høfum ver aller eigi einn fødur? hefir eigi einn Gud skapad oss? hvarfyrer foraktum hver þá hver annann, og vanhelgum þann sátmála sem gerdur er vid vora fedur?

11. Því Juda er ordenn einn forsmánare, og þar verda svívirdingar í Israel og Jerusalem. Þvíad Juda vanhelgar heilagleika Drottins, sem hann elskar, og drýger hór med dottur eins annarlegs Guds.

12. Enn Drottinn mun þá uppræta sem þvílíkt gera, af húse Jacobs, bæde meistarana og lærisveinana, ásamt med þeim sem færa matoffur Drottne Zebaoth.

13. Framvegleidis gered þer og þetta, ad þar er ætíd tár og grátur, og andvarpaner, fyrer alltare Drottins, so eg get eigi framarmeir sed til matoffursins, eige helldur medtekid nockud þacknæmelega af ydrum høndum.

14. Og þer seged: hvar fyrer? fyrer því, ad Drottenn hefir vitne bored ímillum þín, og ektakvinnu þíns ungdoms, sem þu foraktar, so sem hun er þó þín felagssyster, og þín sátmáls husfrú.

15. Sá einsamle gerde eigi so, hver þó ad hafde einn mikenn anda. Enn hvad gerde sá einsamle? hann leitade þess sædis af Gude (sem hønum var tilsagt). Þar fyrer, þá siáe þeir fyrer ydur, fyrer ydvaran anda, og eingeann foracte sína ungdoms husfrú.

16. Enn hver sem hana hatar, sá láte hana fara, seger Drottenn Israels Gud, og gefe henne skiol órettsins af sínum klædum, seger Drottenn Zebaoth. Því siáed fyrer ydur, í ydrum anda, og forsmáed þær eigi.

17. Þer ofþreyted Drottenn med ydrum ordum, so seged þer: hvar med ofþreytum ver hann? þar med, ad þer seged: hver sem illt gerer, sá þocknast Drottne, og hann hefir lyst til hans, eda hvar er sá Gud sem straffar?

## 3. Capitule.

1. Siáed! eg vil senda minn eingell sem tilreida skal veigenn fyrer mer, og sá Drottenn mun snart koma til síns musteris, hvers þer leited, og sá sátmálans eingell, hvern þer girnest. Siáed, hann kemur, seger sá Drottenn Zebaoth.

2. Enn hver mun þola hans tilkomu dag? og hver mun standast þá hann mun opinberast? þvíad hann er sem eins gullsmids elldur, og sem sápa einnrar þvottkonu.

3. Hann mun sitia og bræda, og silfrid hreinsa; hann mun hreinsa og klár gera Levi børn, so sem gull og silfur. Þá munu þeir færa Drottne matoffur í rettlæte.

4. Og þá mun matoffue Juda og Jerusalem vera Drottne þack næmt, so sem ádur, og fyrer mørgum, árum.]

5. Og eg vil koma til ydar, og straff aydur; eg vil vera einn fliótur vitnismadur á móte galldramønnum, hordomsmønnum, meinsærismønnum, og móte þeim sem gera valld og órett, ervidismønnum, ekium og fedurleysingium, og underþrickia þá útlendsku, enn óttast mig eigi, seger Drottinn Zebaoth.

6. Þviad eg em sá Drottenn sem ey lygur, og þat skal eigiølldungis úte vera med ydur Jacobs børn!

7. Þer hafed ætíd, frá tíd ydarra forfedra, viked af mínum bodordum, og hafed þau ei halldeð. So snúed ydur nú til mín, þá vil eg og snúa mer til ydar, seger sá Drottenn Zebaoth. Þer seged so: í hverin skulum ver snúa oss?

8. Er þad rett, ad nockur madur ræne Gud? sem þer ræned mig? Þer seged so: hvernenn rænum ver þig? med tíundum, og upplyptingaroffre.

9. Þar fyrer erud þer og bølvader, so ad aller hluter hverfa ur ydrum høndum, þvi þer pretted mig aller samann.

10 Enn bered þá alla tíund í mitt kornhús, ad þar se matur í mínu húse, og reyned mig þar inne, seger sá Drottinn Zebaoth, hvert eg mun eigi uppluka vindaugum himinsins fyrer ydur, og úthella yfergnæfanlegre blessan.

11. Og eg vil straffa uppetarann ydar vegna, so hann skal eigi fordiarfa ydarn ávøxt á akrenum og ad víntred se ydur eigi óávaxtarsamt á akrinum, seger sá Drottenn Zebaoth.

12. So ad aller heidingiar skulu hrósa ydur sæla vera, þvi þer skulud vera eitt kostuligt land, seger sá Drottinn Zebaoth.

13. Þer taled hardt imóte mer, seger Drottinn. So seged þer: hvad tølum ver imóte þer?

14. J þvi, ad þer seged: þad er forgefins ad madur þionar Gude, og hvad hiálpar þad þó ver hølldum hans bod, og særum einn strangann lifnad fyrer þeim Drottne Zebaoth?

15. Þar fyrer prísum ver þá forsmánara, þvi þeir ógudlegu vaxa, þeir freista Guds, og hafa lucku og frammgang.

16. Enn þeir gudhræddu hugga sig so, hver vid annan, Drottinn merker þad, og heyrer þad, og þad er eitt minningarbref, fyrer hann skrifad, fyrer þá sem ottast Drottinn, og þeinkia á hans nafn.

17. Þeir skulu vera minn eigenndómur (seger Drottinn Zebaoth) á þeim deige hvern eg vil gera, og eg vil spara þá, so sem madur sparar sinn son, þann hønum þionar.

18. Og þer skulud þar imóte siá aptur, hver mismunur ad er ímillum þeirra rettlátu, og þeirra ógudlegu, og ámillum þeirra sem þiona Gude, og hinna sem hønum eigi þiona.

## 4. Capitule.

1. Þviad siá þú! Þar kemur einn dagur, hann skall brenna, sem einn ofn: Þá skulu aller forsmánarar og ógudleger vera hálmur, og sá tilkomande dagur skal uppkveikia þá, seger Drottinn Zebaoth. Og hann skal hverke kvist ne rót láta epter vera af þeim.

2. Enn sól rettlætesins skal upprenna yfer ydur, sem ótteft mitt nafn, og hiálpræded under hans vængium, og þer skulud ganga út og inn, og vaxa sem alek: ffar.
3. Þer skulud undertroda þá ógudlegu, þvi þeir skulu vera aska under ydrum fotum, á þeim deige hvern eg vil gera, seger sa Drottinn Zebaoth.
4. Minnest þer á løgmál Moyſis míns þenara, hvert eg hønum bifalade uppá fiallenu Horeb, vid allt Israels folk, med þeim bodum og rettindum!
5. Siá! eg vil senda ydur Eliam propheta, ádur enn sá hinn mikle og ognarlegi dagur Drottins kemur.
6. Hann skal snúa fedranna hiortum til barnanna, og barnanna hiortum til sinna fedra, so ad eg keme eigi, og slái jordina med banne.

Ender Prophetans Malachiæ.



# Thet

# Nya Testament

Wors

Drottens och Frelsara

# Jesu Christi.

# S. Matthei Evangelium.

## 1. Capitule.

1. Þesse er sú Bók um Fæding Jesu Christi, sonar Davids, sonar Abrahams.

2. Abraham gat Isaac. Isaac gat Jacob. Jacob gat Juda og brædur hans.

3. Juda gat Pharez og Saram af Thamar. Pharez gat Hezron. Hezron gat Ram.

4. Ram gat Aminadab. Aminadab gat Nahasson. Nahasson gat Salma.

5. Salma gat Boas, af Rahab. Boas gat Obed, af Ruth. Obed gat Jesse.

6. Jesse gat Kongenn David. David Kongur gat Salomon, af þeirre sem var hustrú Urie.

7. Salomon gat Roboam. Roboam gat Abia. Abia gat Assa.

8. Assa gat Josaphat. Josaphat gat Joram. Jóram gat Osia.

9. Osia gat Jotham. Jotham gat Achas. Achas gat Ezechia.

10. Ezechia gat Manassa. Manassa gat Amon. Amon gat Josia.

11. Josia gat Jechonia og brædur hans, um Babiloneskam herleidingar tima.

12. Og epter Babiloneska herleiding, gat Jechonia Sealthiel. Sealthiel gat Zorobabel.

13. Zorobabel gat Abiud. Abiud gat Eliachim. Eliachim gat Asor.

14. Asor gat Zadoch Zadoch gat Achin. Achin gat Eliud.

15. Eliud gat Eleasar. Eleasar gat Mathan. Mathan gat Jacob.

16 Jacob gat Joseph, mann Mariu, af hverre ed fæddur er Jesus, sa er kallast Christur.

17. Aller Ættlider fra Abraham allt ad David, eru fiortan lider. Og fra David allt til Babiloneskrar herleidingar eru fiortan lider. Og frá Babiloneskre herleidingu allt til Christum ere fiortan lider.

18. Enn Jesu Christi fæding geck til á þennann hátt: Nær ed Maria hans Moder var trúlofud Joseph, ádur enn þaug komu samann, fanst hun ólett af Heiløgum Anda.

19. Enn Joseph madur hennar var rettvís, og villde þvi ei ófrægia hana, enn þeinkte ser þó leynelega ad skiliast vid hana.

20. Enn sem hann huxade þetta, Sia! þá vitradest hønum eingell Drottens i Draume, og sagde: Joseph sonur Davids! þú skallt ege ottast ad taka Mariam þina kvinnu til þin, þviad hvad med henne fædt er, þad er af Heiløgum Anda.

21. Og hún mun son fæda, og hans nafn skalltu Jesus kalla, Þvíad hann mun frelsa sitt folk af þeirra syndum.

22. Enn allt þetta skede, so ad uppfylltist hvad sagt er af Drottne fyrer Spámannenn, er seiger.

23. Siáed! ein mey mun þungud verda og son fæda, og hans nafn skal kallast Emanuel, hvad ed þýdest, Gud med oss.

24. Enn þá Joseph vaknade af Svefne, gerde hann so sem eingell Drottens hafde hønum bodid, og tók sína ecktakonu til sín og kende hennar eige þar til hun fædde son sinn frumgetinn, og kallade hans nafn Jesus.

## 2. Capitule.

1. Nær Jesus var fæddur í Bethlehem a Gydingalande, í tíd Herodis Kongs, Sia! Þá komu vitringar af austurlande til Jerusalem, og søgdu.

2. Hvar er sá nyfædde Konungur Gydinga? Ver høfum sed hans stiørnu í austurlande, og erum komner ad tilbidia hann.

3. Enn er Herodes Kongur heyrde þad, skelfdest hann, og øll Jerusalem med hønum.

4. Og let samannsafna øllum Kennemanna høfdingium, og skriftlærdum lýdsins, og spurdest fyrer af þeim, hvar Christur skyllde fædast?

5. Enn þeir søgdu hønum, til Bethlehem í Judea. Þvíad so er skrifad fyrer Spámanninn.

6. Og þú Bethlehem á Judalande, ert engvanneigenn hin minsta á medal høfdingia Juda; Þvíad af þer mun koma Hertuge, sa er Herra skal vera yfer minu folki Jsrael.

7. Þá kallade Herodes Vitringana til sín heimuglega, og sinnelega adspurde Þá, á hvørium tíma ad stiarnann hefde láted siá sig?

8. Og vísade þeim til Bethlehem, og sagde: Fared þer og spyred sinnelega ad barnenu, og nær þer finnid þad, þa kunngerid mer þad aptur, so eg kome einnenn ad tilbidia þad.

9. Sem þeir høfdu nú Kongenum heyrt, foru þeir af stad, og siá, ad stiarnann sem þeir høfdu sed í austurlande, geck framme fyrer þeim, allt þar til hún kom, og stod þar uppyfer, hvar barnid var.

10. Enn er þeir sáu stiørnuna, gløddust þeir harla miøg.

11. Og geingu í húsid inn, og fundu þar barnid med Maríu moder sinne, fellu framm, og tilbádu þad, og ad opnudum sínum fiársiódum, gáfu þeir því, gull, reykelsi, og mirru.

12. Og Gud skipade þeim í draumi, ad þeir færu ei aptur til Herodem, og foru so annann veg aptur i sitt land.

13. Enn þa þeir voru í burt farner, siá, ad eingell Drottens vitradest Joseph í draume og sagde: statt upp og tak barnid, og modur þess til þín, og fly í Egyptaland, ver þar allt þangad til eg seige þer, Þvíad þad er epterkomande, ad Herodes mun leite barnsinns ad fyrerfara því.

14. Og hann stod upp, tok barnid og modur þess til sín um nott, og for í Egyptaland.

15. Og var þar allt til dauda Herodis, so þad uppfylltest hvad sagt er af Drottne fyrer spámanninn, er seiger: af Egyptalande kallade eg son minn.

16. Þá Herodes sá nú ad hann var gabbadur af vitringunum, vard hann afareidur, og sende ut, og let drepa øll børn til Bethlehem, og í øllum hennar endemørkum, tvævetur og þadan af yngre, eptir þeim tíma sem hann hafde utspurt af vitringunum.

17. Þá uppfylltist hvad sagt er fyrer Jeremiam spámann, sem seiger:

18. J Rama hefir heyrst kall mikellar kveinunar, óps, og ylfranar, Rachel æpte børn sín, og villde ei huggast láta, þviad þad nar utgiørt um þaug.

19. Enn þá Herodes var daudur, Siá, ad Eingell Drottins byrtist Joseph í draumi, á Egyptalande, og sagde.

20. Stattu upp og tak barnid og moder þess til þín, og far til Jsraels jardar, þviad þeir eru dauder sem leitudu efter lífe barnsins.

21. Hann stod upp, tok Barnid og moder þess til sín, og kom í Jsraels land.

22. Enn þa hann heyrde, þad Archelaus ríkte í Judea, í stadeun fødur síns Herodis, ottadest hann þangad ad fara, og í draume feck hann bifalning af Gude, og fór í álfur Galilea lands.

23. Og kom og bygde í þeirre borg, sem het Nazareth, so þad uppfylltest, hvad sagt er fyrer spámennena, ad hann skyllde Nazareus kallast.

## 3 Capitule.

1. A þeim tíma kom Johannes skírare, og predikade í Eydemørku Gydingalands og sagde.

2. Gered idran, himnaríke er nálægt.

3. Þvi hann er sá af þeim ad sagt er fyrer Esaiam Spámann, sem seiger: Þar er eins predikara rødd í eydemørku, reided til veg Drottens, og gered hans stigu retta.

4. En Johannes hafde klædnad af Ulfvalds hárum, og ólarbellte um sínar lendar, hans matur voru eingesprettur, og skogarhunang.

5. Þá geck og út til hans stadurenn Jerusalem, og allt Gydingaland, og øll lønd hiá Jordan.

6. Og letu sig skíra af hønum í Jordan, játande sínar synder.

7. Enn þá hann sá nú marga Phariseos og Saduceos koma til skírnar sinnar, sagde hann til þeirra: Þer nødrukyn, Hver kende ydur ad flya fyrer tilkomande reide?

8. Af því gered verduganu ávøxt idranar.

9. Og þeinked eige, ad þer villdud seigiá med siálfum ydur, ad Abraham hafum ver fyrer Fødur. eg seige ydur: megnugur er Gud upp ad vekia Abrahams børn af steinum þessum.

10. Af þvi nú er øxenn allareidu sett til rotar trianna, Þvi mun hvert þad tre sem ecke ber godann ávøxt, upphøggvast, og í elld kastast.

11. Eg skíre ydur í vatne til idranar, enn sá epter mig kemer er mer sterkare, hvers skó ad eg er eige verdugur ad bera, hann mun skíra ydur med heiløgum anda og ellde.

12. Hvers varpskupla er í hans hende, og hann mun hreinsa sinn láfa, og hveitenu safna í sína kornhlødu, enn agnenar brenna í oslockvanlegum ellde.

13. J þann tíma kom Jesus af

Galilea ad Jordan til Johannem, ad hann skírdist af hönum.
14. Enn Johannes varnade hönum þess og sagde: Mer er þörf ad eg skírest af þer, og þú kemur til mín?
15. Jesus sagde til hans: Lát nú so vera, þvíad so hæfer oss allt rettlæte upp ad fylla, og þá let hann þad epter hönum.
16. Enn er Jesus var skírdur, ste hann jafnskiott upp úr vatne nu. Og siá, ad himnarner lukust upp yfer honum, og Johannes sá Guds anda ofannstíga sem dúfu og yfer hann koma.
17. Og siá, ad röddenn nidur af himne sagde: Þesse er sonur minn elskulegur, ad hverium mer vel þocknast.

## 4. Capitule.

1. Þá var Jesus leiddur af anda á eydemörk, uppá þad hann freystadur yrde af dioflenum.
2. Og þá hann hafde fastad fiörutíu daga og fiörutíu nátta, hungrade hann um síder.
3. Og freistarenn geck til hans og sagde: ef ad þú ert sonur Guds, seig, ad steinar þesser verde ad braudum.
4. Enn hann svarade og sagde: skrifad steudur, madurenn lifer eige af einsamann braudi, helldur af serhverin orde, sem framm geingur af Guds munne.
5. Þá tók diofullenn hann med ser í borgena helgu, og sette hann uppá bust musteresins.
6. Og sagde til hans: Ef þú ert Guds sonur, fleyg þer her ofan, þvíad skrifad er: Hann mun bioda sínum einglum um þig, ad á höndum bere þeir þig, so ad þú steytir ei fót þinn vid nockrum steine.
7. Þá sagde Jesus til hans: enn aptur steudur skrifad, eige skalltu freista Drottens Guds þíns.
8. Og enn aptur flutte diofullenn hann med ser uppá ofurhátt fiall, og synde hönum öll ríke verralldar, og þeirra dyrd.
9. Og sagde til hans: Allt þetta vil eg gefa þer, ef þú fellur framm og tilbidur mig.
10. Þá sagde Jesus til hans: Far frá mer þú Sathan, þvíad skrifad er, Drottenn Gud þinn skalltu tilbidia og hönum einum þiona.
11. Þá forlet diofullenn hann, og siá, ad einglar komu til hans og þionudu hönum.
12. Enn er Jesus heyrde þad Johannes var gripinn, for hann til Galilea lands.
13. Og forlet borgena Nazareth, kom og bió í Capernaum, hver ed liggur ved siafar sídu í endemörkum Zabulon og Nephtalim.
14. So ad þad uppfylltest, hvad sagt er fyrer Esaiam spámann, sem seiger
15. Landid Zabulon, og landid Nephtalin vid siafargötu hinumeigenn Jordanar og Galilea hin heidna.
16. Lydur sá er sat í myrkrunum hann sá lios mikid, og þeir sem sátu í daudans stad og skugga, þeim er eitt lios upprunnid.
17. Þadann í frá tok Jesus ad predika og seigia: Gerid idran, þvíad himnaríke er nálægt.
18. Enn er Jesus geck med siónum í Galilea, leit hann tvo brædur, Simon sá er kallast Petrus, og Andream brodur hans, hverer ed voru ad varpa nete í sióenn, þvíad þeir voru fiskemenn.
19. Og hann sagde til þeirra,

fylgid mer epter, og vil eg gera ydur ad fiskurum manna.

20. Þeir forletu jafnsnart sin net og fylgdu hønum epter.

21. Og er hann geck framm leingra burt þadan, sá hann adra tvo brædur, Jacob son Zebedei, og Johannem brodur hans, vera í skipe med fedur sinum Zebedeo, net sín ad bæta, og hann kallade þá.

22. Og þeir forletu strax skipid og fodur sinn, og fylgdu hønum epter.

23. Og Jesus fór í kring um allt Galilealand, kennande í þeirra samkunduhúsum, og predikade Evangelium ríkesins, og lækuade øll sottarfelle, og øll krankdæme med folkenu.

24. Og hans rikte barst út um allt Syrland, og þeir færdu hønum alla þá, sem kranker voru af margvíslegum sottarferlum og pinum, og þá er diøful høfdu, tunglamein, eda íktsiúker voru, og hann læknade þá alla.

25. Og margt folk fylgde hønum epter úr Galilea, ur þeim tiu borgum, frá Jerusalem ur Judea, og úr þeim herødum er voru hinumeigenu Jordanar.

## 5. Capitule.

1. Enn er hann sá folkid, geck hann uppá eitt fiall, og sette sig nidur, og hans læresveinar geingu til hans.

2. Og hann lauk sinn munn upp, kende þeim og sagde.

3. Sæler eru þeir sem andlegá eru volader, þviad þeirra er himnaríke.

4. Sæler eru þeir sem harma, þviad þeir munu huggader verda.

5. Sæler eru hogværer, þvíad þeir munu jardríke erfa.

6. Sæler eru þeir sem hungra og þyrsta epter rettlætenu, þvíad þeir skulu sadder verda.

7. Sæler eru miskunsamer, þvíad þeir munu miskun hlióta.

8. Sæler eru hreinhiartader, þviad þeir munu Gud siá.

9. Sæler eru þeir sem fridenn gera, þvíad þeir munu Guds børn kallader verda.

10. Sæler eru þeir, sem fyrer rettlætisins saker offokter verda, þvíad þeirra er himnaríke.

11. Sæler eru þeir, nær mennerner forsmá ydur, og offokn veita fyrer minar saker, og tala í gegn ydur alla vondsku, ef þeir þad liúga.

12. Fagned þer og verid glader; þad skal vel bitalast ydur á himnum, þviad so hafa þeir offokt spámennena þá ed fyrer ydur voru.

13. Þer erud sallt jardar; Nu ef salltid deifist, í hveriu verdur þa salltad? Þá duger þad til einskis meir, nema ad þad verdur útsnarad, og verdur fóttroded af mønnum.

14. Þer erud liós verallðar Sú borg sem á fiallenu liggur kann ei folgist.

15. Og eige tendra menn liósid og setia þad under mæleask, helldur yfer liósahalldenu, so ad þad lysi øllum þeim, sem í húsinu eru.

16. Látid so ydvart liós lysa fyrer mønnunum, so ad þeir siáe ydar godverk, og dyrke fødur ydar á himnum.

17. Þer skulud ei meina, ad eg se komenn løgmálid edur spámennena upp ad leysa. Eg em eigi komin ad leysa, helldur upp ad fylla.

18. Þvíad eg seige ydur, fyrer satt, þangad til himen og jørd forgeingur, mun eige hinn minste bókstafur edur titill af løgmálenu forganga, þar til ad allt þad skedur.

19. Hver sem nú uppleyser eitt af þessum minstu bodordum, og kenner þad lyduum so, sá mun kallast minstur í himnaríke, enn hver þad gerer og kenner, hann mun mikell kallast í himnaríke.

20. Þvíad eg seige ydur: nema so se ad ydart rettlæte se betra en hinna Skriftlærdu, og Phariseanna, þá munud þer eige koma í himnaríke.

21. Þer hafid heyrt, ad sagt er af hinum gømlu: Þú skallt eige mann vega, enn hver ed mann vegur, hann verdur doms sekur.

22. Enn eg seige ydur: hver hann er reidur brodur sínum, hann verdur doms sekur. Enn hver sem til brodur síns seiger, Racha, hann verdur ráds sekur, enn hver ed seiger: Þú afglape, hann verdur sekur helvítis elds.

23. Fyrer þvi nær þú offrar þína gáfu á alltared, og þer kemur þar til hugar þad broder þinn hafe nockud á mote þer,

24. Þá lát þú þar þína gáfu fyrer alltarenu, og gack ádur ad sætta þig vid brodur þinn, og kom ad offra þína gáfu.

25. Vertu snarlega samþyckur þínum motstødumanne, á medann þú ert enn á veige med hønum, so ad ei sele þig þinn motstødumadur domaranum, og domarenn sele þig þenaranum, og verder þú í dyblyssu kastadur.

26. Ad sønnu seige eg þer: ad þú munt ei þadann útfara, þar til þú borgar hinn sídasta Pening.

27. Þer hafed heyrt ad sagt er til hinna gømlu: Þú skallt ei hórdom drýia.

28. Enn eg seige ydur: ad hver hann lítur konu til ad gyrnast henar, sá hefir þegar drigt hór med henni í sínu hiarta.

29. Enn ef þitt hægra auga hneyxlar þig, þá kipp þvi út og kasta því frá þer, þvíad betra er þer ad einn þinna lima farist, og eige kastist allur þinn líkame í helvíte.

30. Og ef þín hægra hønd hneyxlar þig, þá sníd hana af og kasta frá þer, þvíad betra er þer, ad einn þinna lima farest, enn ad allur líkame þinn kastest í helvíte.

31. So er og sagt, ad hver ed skilur sig vid sína eigenkonu, sá skule gefa henne skilnadarskrá.

32. Enn eg seige ydur: hver hann skilur sig vid sína eigenkonu (ad undantekenne hórunarsøk) sá gerer þad, ad hún verdur hórdoms kona, og hver ed fastnar þá sem fra manne er skilenn, sa drygir hór.

33. Þer hafed enn framar heyrt, ad þad er sagt af hinum gømlu, ad eige skuler þú rangt sveria, Og þú skallt Gude þitt sære lúka.

34. Enn eg seige ydur: ad þer skulud olldungis ecke sveria, hverke vid himenenn, þvíad hann er Guds sæte.

35. Eige helldur vid jørdena, þvíad hun er skør hans fota, eige vid Jerusalem, þvíad hún er Borg hins mikla konungs.

36. Þú skallt og eige sveria vid høfud þitt, þvíad þú kannt ei ad giøra eitt hár hvítt edur svart.

37. Enn ydar ræda se Ja, Ja, Nei, Nei; Enn hvad framm yfer þad er, þad er af hinum vonda.

38. Þer hafed heyrt, ad þar er

sagt, Auga fyrer Auga, Tønn fyrer Tønn.

39. Enn eg seige ydur, ad þer skulud ei briotast í'gegn illu, helldur ef nockur slær þig á þína hægre kinn, þá biod hønum hina adra.

40. Og vile nockur vid þig løg þreyta, og þinn kyrtel af þer hafa, þa lát hønum og þinn møttul lausann.

41. Og ef nockur neider þig um milu eina, þá gack med hønum tvær.

42. Gef þeim er þig bidur, og vert ei afundenn þeim er af þer vill lán taka.

43. Þer hafed heyrt ad sagt er: Elska skalltu náunga þinn, og ovin þinn at hatre hafa.

44. Enn eg seige ydur: Elske þer óvine ydar, blessed þá er ydur bølva, gerid þeim gott er ydur hata, og bided fyrer þeim er ydur gera skada, og offsokn veita.

45. So ad þer send børn fødurs ydars þess á himnum er, þvi hann lætur sina sol uppganga yfer vonda og yfer goda, og lætur rigna yfer rángláta og rettláta.

46. Þvi ef þer elsked þá er ydur elska, Hvert verdkaup hafed þer fyrer þad? Gera eige þad sama tollheimtumenn?

47. Og þó þer láted kært ad eins vid brædur ydra, Hvad gered þer ad serlegra? Gera og eige tollheimtumenn hid sama?

48. Fyrer þvi verid algerder, so sem ydar fader á himnum er algerdur.

## 6. Capitule.

1. Giætid ad ydrum ølmøsum, ad eige gefed þer þær fyrer mønnunum, so ad þer siáest af þeim, annars hafed þer ecke verdkaup hiá ydrum fødur, sem á himnum er.

2. Nær þú gefur ølmosu, þá skalltu eige lúdur þeyta láta fyrer þer, so sem hræsnarar gera í skolum og á strætum, so ad þeir heidrest af mønnunum. Sannlega seige ed ydur: ad þeir hafa sín laun útekit.

3. Enn nær þú gefur ølmosu, þá lát þína vinstre hønd eiga vita hvad þin hægre gerer.

4. So ad þín ølmusa se í leyne, og Fader þinn sá í leynum ser, mun giallda þer opinberlega aptur.

5. Og nær þú bidur, skalltu eige vera so sem hræsnarar, hverium giarnt er ad standa, bidiast fyrer í skolum, og á gatnahornum, so ad þeir siáest af mønnum. Sannlega seigi eg ydur: ad þeir hafa sín laun útekid.

6. Enn nær þú bidst fyrer, þá gack inn í þitt svefnhús, og lyk dyrunum aptur, og bid þú Fødur þinn í leinum, og Fader þinn sa í leynum ser, mun þer þad opinberlega apturgiallda.

7. Og nær þer bided, skulud þer eige margmáluger vera, so sem heidingiar gera, þviad þeir meina, ad af sinne margmælge munu þeir heyrder verda.

8. Fyrer þvi skulud þer eige þeim líkiast, Þviad Fader ydar veit hvers þer hafed þorf, ádur enn þer bided hann.

9. Af þvi skulud þer so bidia. Fader vor þú sem ert á himnum. helgest þitt nafn.

10. Tilkome þitt ríke. Verde þinn vile so á jordu sem á himne.

11. Gef þu oss í dag vort dagalegt Brand.

12. Og fyrergef oss vorar skullt

der, so sem ver fyrergefum vorum skulldunautum.

13. Og leid oss eige í freistne, helldur frelsa þú oss fra illu, Þvíad þitt er ríked, og máttur og dyrd um allder allda Amen.

14. Þvíad ef þer fyrerláted monnunum sinn brest, þá mun ydar himneskur fader og so fyrergefa ydur.

15. Enn ef þer fyrerláted eige þá mun ydar fader eigi fyrergefa ydur ydar bröt.

16. Nær þer fastid, þá skulud þer ei vera fámuleiter so sem hræsnarar, þvíad þeir afminda sína ásjónu, so ad þeir faste. Sannlega seigi eg ydur, ad þeir hafa úttekid sín laun.

17. Enn nær þú fastar, þá smyr þú höfud þitt, og þvo þitt andlit.

18. So ad eige skíne fyrer mönnunum þad þú faster, helldur fyrer födur þínum sem er í leyne, Og fader þinn sá er í leyne ser, hann mun þer þad opinberlega aptur giallda.

19. Eige skulud þer ydur fiársiódum safna á jördu, hvar mölur og rid etur þá, og hvar Þiofar meige epter grafa og stela.

20. Helldur safnid ydur á himne, hvar ed hverke má mölur ne rid granda, og hvar Þiofar fá ei stoled ne epter grafed.

21. Þvíad hvared ydar siódur er, þar er ydart hiarta.

22. Augad er lios líkamans. Ef auga þitt er einfallt, þá er allur líkame þinn skiær.

23. Enn ef auga þitt er skalkur, þá er allur líkame þinn myrkur, Því ef þad lios sem ad er í þer, er myrkur, hve mikel mun þá myrkrem skálf?

24. Eingenn kann tveimur Herrum ad þiona, Annad hvert þá afrækir hann þann eina, og elskar hinn annann, ellegar hann þydest þann eina, og fyrerlytur hinn annann. Þer geted ei Gudi þionad og mammon.

25. Fyrer þvi seige eg ydur: Vered ei hugsiúker fyrer ydru lífe, hvad þer skulud eta og drecka, og ei fyrer ydrum líkama, hverin þer skulud klædast. Er ei lífed meir enn fædann? og líkamenn meir enn klædenn?

26. Siaed fuglana under himnenum, þeir ed hverke sá ne uppskera, og eige safna þeir í kornlodur, og ydar himneskur fader hann fæder þá þó; Erud þer ei miklu framar enn þeir?

27. Eda hver ydar getur med sinne áhyggiu aukid alen eina ad leingd sinne?

28 Og hvar fyrer erud þer hugsiúker fyrer klædnadenum? Hygged ad akursins liliugrösum, hvernenn þau vaxa, þau vinna hverke ne spinna.

29 Eg seige ydur: þad Salomon í allre sinne dyrd var ei so skryddur sem eitt af þeim.

30. Nú ef Gud skryder so grased á akre, þad í dag stendur, og á morgun verdur í ofn kastad, Skyllde hann ei miklu framar þad vid ydur gera? O þer lítiltrúader.

31. Fyrer því skulud þer ecke hugsiúker vera og seigia. Hvad munum ver eta, eda hvad munum ver drecka, eda hverin munum ver klædast?

32. (Efter þessu ollu sæker heidenn Þiod) þvíad ydar himneskur fader veit at þer þurfed als þessa vid.

33. Leited fyrst Guds ríkes, og hans rettlætis, og mun ydur allt þetta tillegiast.

34. Og fyrer þvi skulud þer ei ønn ala annar morgunsz, af því ad morgundagur mun kvída fyrer sialfum ser bera, hverium deige næger sin þiáning.]

## 7. Capitule.

1. Eige skulud þer dæma, so ad þer verded ei dæmder.

2. Þvíad med hverium dome þer dæmed, munud þer dæmder verda, og med hverre mælingu þer mæled, mun ydur endurmællt verda.

3. Enn hvad ser þú ognn i auga brodur þíns, og ad þeim bialka sem er i sialf þíns auga, gáer þú ecke?

4. Eda Hvernenn dyrfest þú ad seigiá brodur þínum? broder. Leyf ad eg drage út ognena af auga þínu, og siá, ad bialka er i sialfs þíns auga.

5. Þú hræsnare! Drag fyrst ut bialkan af þínu auga, og gef þá gætur ad, ad þú fáer útdreiged ognena af þíns broddurs auga.

6. Eige skulud þer gefa hundum helgedommenn, og varped ei helld/ ur perlur ydrar fyrer svín, so ad eige trode þau, og ydur i sund/ ur slíte.

7. Bided, og mun ydur gefast, leited og munud þer finna, knyed á, og mun fyrer ydur upplokeð.

8. Þvíad hver ed bidur, hann odlast, hver ed leitar hann finnur, og fyrer þeim ed áknyr, mun upplokeð.

9. Hver er sá madur á medal ydar, ef sonurenn bidur hann um braud, ad hann biode þeim stein?

10. Ellegar ef hann bidur, um fisk, ad hann biode hønum þa høggorm?

11. Nú ef þer sem sem þo erud vonder, kunned ad gefa godar giafer børnum ydrum, hvad miklu meir mun ydar fader, sá á himnum er, gefa þeim gott er hann bidia?

12. Allt hvad þer viled menn/ erner gere ydur, þad skulud þer og þeim gera, þad er løgmáled og spámennerner.

13. Ganged inn um hid þraungva port, þvíad þad port er vídt, og sá vegur er breidur sem leider nidur til fortapunar, og þeir eru marger sem á hønum reika.

14. Og þad port er þraungt, og sá vegur er miór, sem til lífs/ ins leider, og þeir eru fáer er hann rata.

15. Vakted ydur fyrer fals/ spámønnum, sem til ydar koma i klædum saudanna, enn innann til eru þeir glepsande ulfar.

16. Af ávøxtum þeirra meiged þer þá kenna. Verda nockud vín/ ber saman lesenn af þyrnum? ellegar fíkiur af þyslum?

17. So mun hvert gott tre bera godann ávøxt, enn hvert vont tre vondann ávøxt.

18. Gott tre getur ei bært vond/ ann ávøxt, og ei heldur getur vondt tre bært godann ávøxt.

19. Hvert þad tre sem ei bærer godann ávøxt, mun af høggved verda og i elld kastast.

20. Fyrer þvi meiged þer af þeirra ávøxtum þeckia þá.

21. Þeir munu ei aller sem til mín seigia á þeim deige: Herra, Herra, høfum ver ei spád i þínu nafne, høfum ver ver eige i þínu nafne diofla útreked, høfum ver ecke i þínu nafne mørg kraptaverk gert?

23. Og eg mun þá játa, ad alldrei þeckta eg ydur, fared frá mer aller illgredamenn.]

24. Hyrer þvi, hver hann heyrer þesse mín ord og gerer þau, þeim líke eg vid einn vitrann mann, sem byggde upp sitt hús yfer hellustein.

25. Og er steyvedøgg gerde, og natsflóded kom, og Vindar blesu, og dundu á húsenu, þá fell húsed ei ad helldur, Þviad þad var grundvallad yfer hellunna.

26. Og hver hann heyrer þesse mín ord, og gerer þau eige, hann er líkur þeim fávísum manne, sem uppbyggde sitt hús á sande.

27. Þá nu steyve døgg gerde, og natsflóded kom, og Vindar blesu, og dundu ad þvi húse, þá fell þad, og þess fall vard miked.

28 Og þad skede þá Jesus hafde lyktad þessa sína rædu, ad folked furdade hans kenning.

29. Þvíad hann prædikade volldsuglega, og eige líka sem hiner Skriptlærdu.

## 8. Capitule.

1. Enn er hann geck ofan af fiallenu, fylgde hønum margt folk epter.

2. Og siá, ad líkþrár madur kom, tilbad hann og sagde: Herra, Ef þú villt, þá kanntu vel ad hreinsa mig.

3 Og Jesus úrrette sína hønd, snart hann, og sagde: Eg vil, vert þu hreinn: Og tafnsnart vard hann af sinne líkþrá hreinn.

4. Og Jesus sagde til hans: Siá til, seig þad ei neinum, helldur far þú, og sýn þig kennemannenum, og offra þá gáfu, er Moses baud, til vitnisburdar yfer þeim.

5. Enn þá Jesus geck inn í Capernaum, kom til hans einn Høfuds madur, bidiande hann.

6. Og sagde: Herra! Þion minn liggur heima og er icktsiúkur, og kvelst þunglega.

7. Jesus sagde til hans: Eg vil koma og lækna hann.

8. Høfudsmadurenn svarade og sagde: Herra! Eg em ei verdugur ad þú ganger under mitt þak, helldur seig þú eitt ord, og mun minn Þion heilbrigdur verda.

9. Því eg em og madur, Yfervalldenu undergefenn, hafande under mer stríds menn, og nær eg seige þessum: far, þa fer hann, og ødrum kom þú, þá kemur hann, og Þræle mínum, ger þetta, og hann gerer þad.

10. Þá Jesus heyrde þad, undradest hann, og sagde til þeirra er hønum epterfylgdu: Sannlega seige eg ydur, slíka trú hefe eg eige funded í Israel.

11. Enn eg seige ydur: þad marger munu koma af austre og vestre, og sitia til bords med Abraham, Isaac, og Jacob í himnarìke.

12. Enn ríkesins børn munu verda útrekenn í hin ytre myrkur, þar vera mun óp og tannagnistran.

13. Og Jesus sagde til høfudsmannsins: Gack hedan, verde þer epter þvi sem þú trúer. Og hans Þion vard heill á þeirre sømu stundu.

14. Og Jesus kom í hús Peturs, og leit, ad modur konu hans lá, og hafde køldu.

15. Þá tók hann um hønd hennar, og kaldann forlet hana. Og hún stod upp og þionade þeim.

16. Enn um kvølldid, færdu þeir marga døfulóda til hans, og hann rak andana út med ordenu, og læknade þá alla er kranker voru.

17. So ad upfyllteſt hvad ſagt er fyrer Eſaiam ſpámann, ſem ſeiger: Hann tok vora veikleika uppa ſig, og vora ſiukdoma bar hann.

18. Og er Jeſus leit margt folk kringum ſig, baud hann þeim, ad þeir færu yfer um, hinu meigen ſiofarins.

19. Og einn ſkriptlærdur geck ad, og ſagde til hans: Meiſtare, eg vil fylgia þer hvert þú fer.

20. Jeſus ſagde til hans: refar hafa holur, og fuglar loptſins hreidur, enn mannſins ſon hefur eige, hvar hann ſit høfud ad hneige.

21. Og einn annar af hans Lærerſveinum ſagde til hans: lavardur, lofa mer fyrſt ad fara og greptra fødur minn.

22. Jeſus ſagde til hans: fylg þú mer epter, og lát þá daudu, greptra ſína daudu.

23. Og hann ſte á Skip, og hans Læreſveinar fylgdu hønum.

24. Og ſiá, ad mikell Stormur gerdeſt í ſionum, ſo ad ſkiped huldeſt einnen bylnium, enn hann ſvaf.

25. Og læraſveinarner geingu ad hønum, og vøktu hann upp, og ſøgdu: Herra, hialpa þú oſſ, vær forgøngum.

26. Þá ſagde hann til þeirra: Hvad hrædeſt þer ſo, þer liteltrúader? Hann reiſ þá upp, og haſtade á vindenn og ſióenn, Þá vard lógn miked.

27. Enn mennerner undruduſt, og ſøgdu: Hvilíkur madur er þeſſe, ad vindur og ſiór eru hønum hlydug.]

28. Og hann kom yfer um ſioenn, í bygder Gergeſeners manna, þar hlupu tveir diøfuloder í mote hønum, komande, úr grøfum framm ſidenna, þeir ed miøg voru olmer, ſó ad eingenn mátte um þann veg fara.

29. Og ſiá, ad þeir kølludu og ſøgdu: Hvad høfum ver med þig, O Jeſu Guds ſonur? Komſtu hingad ad kvelia oſſ ádur en tíme er til?

30. En þar var langt í burt fra þeim mikel hiørd ſvina í hagnanum.

31. Þá bádu diøflarner hann og ſøgdu: Ef þú rekur oſſ út, þá leyf oſſ ád fara í ſvinahiørdena.

32. Og hann ſagde: Fared burt. En þeir fóru út, og hlupu í ſvinahiørdena. Og ſiá, ad øll ſvinahiørdenn ſteyqde ſer med Ys mikelle í ſióenn, og þau drecktuſt í vatnenu.

33. Enn hirdararner ſlydu, og komu í borgena, kunngerdu allt þetta, og hvernen til hefde geinged med þeim diøfulodu.

34. Og ſiá, þá geck øll borgenn út í mote Jeſu. Og er þeir ſáu hann, bádu þeir hann burt fara af þerra landamerkium.

## 9. Capitule.

1. Þá ſte hann á Skip, og fór yfer um aptur, og kom í ſína borg.

2. Og ſia, þá færdu þeir til hans eitn icktſiukann, ſá er í ſæng lá. Enn ſem Jeſus ſá þeirra trú, ſagde hann til hins icktſiuka: Vertu hughrauſtur ſonur, þínar ſynder eru þer fyrergefnar.

3. Og ſiá, ad nockrer af ſkriptlærdum ſøgdu med ſiálfum ſer, Þeſſe gudlaſtar.

4. Og ſem Jeſus ſá þeirra hugsaner, ſagde hann: Hvar fyrer huxed þer ſó vondt í ydrum hiørtum?

5. Hvert er audvelldara ad seigia? Þer eru þínar synder fyrergefnar, eda ad seigia: statt upp og gack?

6. Enn so ad þer vitid, þad mannsins sonur hefur magt á Jordu synder ad fyrergefa, þá sagde hann til hins ickt-sjúka, statt upp, tak sæng þína, og gack heim.

7. Og hann stód upp, og geck heim

8. Þá folked sá þetta, undradest þad, og prísade Gud, sá ed þvílíka magt hafde mønnunum gefed.

9. Og er Jesus geck þadan, sá hann einn mann sitia í tollbúdenne, Mattheum ad nafne, og sagde til hans: fylg þú mer, Og hann stód upp, og fylgde hønum.

10. Og þad skede, er hann sat til bords í húsenu: Sia, þá komu marger tollheimtumenn, og bersynduger, og sátu til bords med Jesu og hans læresveinum.

11. Þá Phariseæi sáu þad, søgdu þeir til hans læresveina: Þvi etur ydar meistare med tollheimturum, og syndurum?

12. Þá Jesus heyrde þad, Sagde hann til þeirra: Heilbrigder hafa ei læknarans þørf, helldur þeir sem kranker eru.

13. Enn fared þer burt, og nemed hvad þad er (á miskun hefe og þocknan og ei á Offre) Eg em komen til ad kalla synduga til Idranar, og ecke þá rettlátu.

14. Þá komu Johannis læresveinar til hans, og søgdu: Hvar fyrer føstum ver, og Pharisei so miøg, enn þíner læresveinar fasta ei?

15. Jesus sagde til þeirra: Hvernen má brúdkaups folked syrgia, so leinge sem brúdgumenn er med þeim? Enn sa tíme mun koma, ad brúdgumenn mun frá þeim takast, þá munu þeir fasta.

16. Eingenn setur bót af nyu klæde á gamallt fat, Þvi botenn glidnar frá fatenu aptur, og verda so slitenu verre.

17. Og eige láta menn nytt vín í fornár fløskur, annars spreingiast fløskurnar, og víned spillest, og fløskurnar fordiarfast. Helldur láta menn nytt vín í nyar fløskur, og verdur so hvørtveggia forvarad.

18. Sem hann var þetta ad tala vid þá, Sia, þá kom einn af høfdingiunum, og fell fyrer hønum nidur, og sagde: Herra, dotter mín er ny sálud, enn kom og legg þína hønd yfer hana, so verdur hún lifande.

19. Jesus stod upp, og fylgde hønum epter, og hans læresveinar.

20. Og siá, ein kvinna hver ed blodfall hafde haft í tolf ár, geck á bak til vid hann, og snerte falld hans klæda.

21. Þvíad hun sagde med sialfre ser: Ef eg mætte ad eins snerta hans klædnad, munda eg heilbrigd verda.

22. Þa snerest Jesus vid, leit á hana, og sagde: Vertu hughraust mín dotter, þín trú hefir hialpad þer. Og konann vard heil á þeirre sømu stundu.

23. Og er Jesus kom í foringians hús, og sá pípublásarana, og ys folksins.

24. Sagde hann til þeirra: fared frá, þviad stulkann er ecke daud, helldur sefur hun. Og þeir dárudu hann.

25. Enn er folked vard útdrifed, geck hann inn, og tók um hønd hennar. Þá stod stúlkann upp.

26. Og þetta rikte barst út um allt þad land.

27. Og er Jesus geck burt þadan framm leingra, fylgdu hönum epter tveir menn blinder, þeired kølludu og søgdu: þú sonur Davids miskuna ockur.

28. Og er hann kom inn í húsed geingu hiner blindu til hans. Og Jesus sagde til þeirra: Trued þid ád eg kunne ád gera yckur þetta? Þa søgdu þeir til hans: ja Herrá.

29. Þá snart hann þeirra augu, og sagde: Verde yckur epter tru yckare.

30. Og þeirra augu lukust upp. Og Jesus hótade þeim og sagde: Siáed til, ad þad fáe ei nockur ad vita.

31. Enn þeir geingu út, og útbreisdu hans rickte um allt þad land.

32. Þá þesser voru nú útgeingner, Sia, þá høfdu þeir til hans þann mann, sem dumbe var og diøfulódur.

33. Og ad utreknum diøflinenum, talade hinn máállause, og folked undradest þad, og sagde: Alldrei hefur slikt sed vered í Israel.

34. Enn Phariseì søgdu: Hann rekur diøfla út fyrer diøflahøfdingiann.

35. Og Jesus geck umkring í øllum borgum og kauptunum, kennde í þeirra samkundu húsum, og predikade Evangelium rikesins, og lækuade allshattadar sotter, og allskyns krankdæme hia folkenu.

36. Og er hann leit folked, fá hann aumur á þvi, þviad þeir voru vanmegna ordner, og tvistrader, sem þeir sauder, er engann hirder hafa.

37. Þa sagde hann til sinna, læresveina: Kornskerann er mikel, enn verkmennerner fáer, fyrer þvi bided Herrann kornskerunnar, ád hann sende verkmenn í sina kornskeru.

## 10. Capitule.

1. Og hann kallade tolf sina læresveina til sín, og gaf þeim magt yfer óhreina anda, ád þeir rækú þá út, og ád lækna allskyns sotter og mallra handa meinlæte.

2 Enn þeirra tolf Postula nøfn eru þesse; sá fyrste Simon, sá er kallast Petur, og Andreas broder hans, Jacob sonur Zebedei og Johannes broder hans.

3 Philippus, og Bartholomeus, Thomas, og Mattheus tollheimtare, Jacob Alphei sonur, Lebbæus, ád vidurnefne Thaddæus.

4 Simon af Cana, og Judas Ischarioth, sá ed forred hann.

5. Þessa tolf útsende Jesus, bióðandi þeim, og sagde: farid ei á gøtu heidennar Þiodar, og ganged eige inn í borger Samverskra manna.

6 Helldur gangid til þeirra fortapadra Sauda af húsi Israels.

7. Farid út, predikid, og seigid: þad himnarike er nálægt.

8. Lækned sinka; hreinsed likþráa; uppveked dauda; utreked diøfla. Fyrer ecke hafed þer þad feingid, gefid þad og út fyrer ecke.

9. Þer skulud eige hafa gull, ei silfur, ne kopar í lindum ydrum.

10. Og ei helldur tösku til vegferdar, ei tvo kyrtla, eige skó, engann staf, þviad verdur er verkamadurinn sinnar fædu.

11. Þa þer inngangid i nockra borg, edur kauptun. Þá spyred ád, hvert þar se nockur í henne

sem þess se verdur, og þar hiá þeim sama blíſid, þar til þer farid burt þadann.

12. Nær þer ſunganged í nockurt hús, þa heilſid þvi.

13. Og ef þad samá hús er þess verdugt, mun ydar fridur koma yfer þad, enn ef þad er eige verdugt, þá mun ydar fridur til ydar aptur hverfa.

14. Og hver hann medtekur ydur eige, og eige heyrer ydvarre rædu, gangid útaf þvi húſi eda borg, og hriſtid duptid af ydrum fótum.

15 Sannlega ſeige eg ydur, ad bærelegra mun verda landenu Sodoma og Gomorra á doms deige, helldur enn þeirre ſømu borg.

16. Siáed. Eg sende ydur ſo sem sande á millum varga, fyrer þvi verid forſiáler ſo sem høggormar, og einfallder sem dúfur.

17. Enn vaktid ydur fyrer mønnum, þviad þeir munu ofurselia ydur í ſín rádhús, og í ſínum samkunduhúſum munu þeir ydur ſtrykia.

18. Og þer munud leidder verda fyrer Lands høfdingia og Konga, minna vegna, til vitnisburdar yfer þá og yfer heidenn lyd.

19. Enn nær þeir framselia ydur nú, þá verid ei hugſiúker, hvernin eda hvad þer ſkulud tala, þviad þad mun ydur á þeirre ſtundu gefid verda, hvad þer eiged ad tala.

20. Þviad þer erud eige þeir sem tala, helldur er þad ande ydvars fødurs, sá er talar fyrer ydur.

21. Sá eine broder mun selia annann í dauda, og fader sonenn, og nidiarner munu upprísa á mote forelldrunum, og þeim ſiørræde veita.

22. Og þer ve[illegible]d ád hatre hafder af øllum mønnum fyrer míns nafns saker. Enn hver hann er ſtadfaſtur allt til enda, sá mun holpenn verda.

23. Enn nær þeir offækia ydur í einne borg, þá flýed í adra: Sannlegá seige eg ydur: ád þer munud eige fullkomnad geta borgernar í Israel, þar til ád manns ins sonur kemur.

24. Eige er lærreſveinnenn yfer ſínum meiſtara, og eige þiónnenn yfer herranum.

25. Nægeſt lærefveinenum ad hann se ſo sem hans meiſtare, og þiounenn sem hans Herra. Ef þeir hafa húsfodurenn Beelzebub kallad, hvad miklu meir munu þeir þá hans heimamenn ſo kalla?

26. Af þvi óttiſt þá ecke, þvi ecke er ſo hulid, at eige verde aúglioſt, og ecke er ſo leyndt ad eige fáeſt ad vita.

27. Hvad eg seige ydur í myrkre, þad talid í lioſe; og hvad þer heyred í eyra, þad prediked á ræfrum.

28. Og hrædeſt eige þá sem líkamann aflífá, og sáleua geta ei líflátid, helldur hrædiſt þann framar sem Sálu og Líse getur tortínt í helvíti.

29. Kaupaſt eige tveir titlingar fyrer einn Penning? Þó fellur eige einn af þeim á iørd, án ydars fødurs vilia.

30 So eru og eínnenn øll ydar høfudhár talenn.

31. Fyrer þvi ótteſt eige; þer erud mørgum titlingum betre.

32. Fyrer þvi, hver hann medkenner mig fyrer mønnunum, þann vil eg medkenna fyrer mínum himneſka fødur.

33. Enn hver hann afneytar mer fyrer mønnunum, þeim vil

eg afneyta fyrer mínum Himneſka Fødur.

34. Þer ſkulud eige þeinkia, ad eg ſe komenn Frid ad ſenda á Jördena, eige kom eg Frid ad ſenda, helldur Sverd.

35. Þviad eg em komenn til ad ysa Manuenn á mote Fødur ſínum, og Dotturena í gegn Modur ſinne, og Sonarkonuna í gegn Modur Manns ſíns.

36. Og Mannſins Hiú munu vera hans Oviner.

37. Hver hann elſkar Fødur og Modur meir enn mig, ſa er mín eige verdugur. Og hver hann elſkar hinn Son edur Dottur yfer mig, ſá er mín ei verdugur.

38. Og hver hann tekur eige ſinn Kroſs á ſig og fylgér mer epter, ſá er mín ei verdugur.

39. Hver ed finnur ſitt Lif, ſa mun týna þvi, og hver ſſau Life týner minna vegna, hann mun þad finna.

40. Hver hann medtekur ydur, ſá medtekur mig, og hver mig medtekur, hann medtekur þann, ſem mig ſende.

41. Hver hann medtekur ſpámann i ſpámanns nafne, ſá fær ſpámanns laun: hver hann medtekur rettlátan i rettláts nafne, ſá fær rettláts laun.

42. Og hver hann gefur einum af þeſſum veſælingum einn bikar af kölldu vatne at drecka í læreſveins nafne, ſannlega ſeige eg ydur, at þad mun eigi hønum ólaunad verda.

## XI. Capitule.

1. Og þad ſkede þá Jeſus hafde lycktad þeſſar bodauer, til ſinna tólf læreſveina, geck hann leingra fram at kenna og predika í þeirra borgum.

2. Enn þá Johannes heyrde í bøndunum verken Chriſti, ſende hann tvo af ſínum læreſveinum, og let ſeigia hønum.

3. Ertþu ſá ſem koma ſkal, eda eigum ver at vænta nockurs annars?

4. Jeſus ſvarade og ſagde til þeirra: fared þer og kunngerid Johanni aftur, hvad þer ſiáed og heyred.

5. Blinder ſá ſyn; hallter gánga; likþráer hreinaſt; og dauſer heyra; dauder upprísa, og fátækum verdur evangelium bodad.

6. Og ſæll er ſá, ſem eigi hneixlar ſig á mer.

7. Enn at þeim burt geingnum, hóf Jeſus at ſeigia til fólkſins af Johanne: hvad fórud þer á eydemörku at ſiá? Villdud þer ſiá reyr, ſem vindurenn blæs til og frá?

8. Eda hvad fórud þer út at ſiá? Villdud þer ſiá mann miúkklæddann? Siáed, þeir, ſem miúkann klædnad hafa, eru í konunganna húſum.

9. Eda hvad fórud þer út at ſiá: villdud þer ſiá ſpámann? Eg ſeige ydur, hann er meire enn einn ſpámadur.

10. Þviad hann er ſá, af hverjum ſkrifad er: ſiá, eg ſende minn eingel fyrer þer, ſá er þinn veg ſkal tilreida fyrer þer.

11. Sannlega ſeige eg ydur: á medal allra þeirra, ſem af konum eru fædder, er engi annar uppkomen, ſá meire ſe enn Johannes ſkírare, enn hann ſem minne er í himnaríke, er hønum meire.

12. Enn frá døgum Johannis ſkírara og allt til þeſs, nú er komid, þoler himnaríke ofureſle, og þeir, ſem ofurefled gera, hremma þad til ſín.

13. Þvíat aller spámenn og løgmálid spádu til Johannem.

14. Og ef þer viled þad medtaka, þá er hann Elias, sá er koma skal.

15. Hver eyru hefir at heyra, hann heyre.

16. Enn vid hvad skal eg þessare kynslód jafna? Lík er hún þeim børnum, sem sátu á torge, hver ed kølludu til sinna stallbrædra.

17. Og søgdu: ver høfum fyrer ydur í pípur blásid, og þer villdud eigi dansa; ver þuldum ydur vorar rauner, og þer villdud egi gráta.

18. Johannes er komenn, hann át ecki og drack ecki, og þeir seigia: hann hafe diøful.

19. Mannsins sonur er komenn, etur og dreckur, og þeir seigia: siá, hvílíkur ofátsmadur, og vínsvelgiare, vinur tollheimtumanna og syndugra, og spekenn hlytur at rettlætast láta af sínum børnum.

20. Þá tók hann at ávíta þær borger í hverum gerd vorn flest hans kraftaverk, þad þær høfdu eigi betrad sig.

21. Ve þer Chorazin, ve þer Bethsaida, þvíat ef í Tyro og Sidon hefdu gerst soddan kraftaverk, sem hiá ydur hafa gerst, hefdu þeir fyrer laungu í seck og øsku idran gert.

22. Enn þó seige eg ydur, at Tyro og Sidon mun bærelegra verda á deige dómsins, helldur enn ydur.

23. Og þú Capernaum! sem allt til himens ert uphafinn, munt nidur þryckiast allt til helvítis. Þvíat ef í Sodoma hefdu þau kraftaverk gerst, sem hiá þer hafa gerd verid, þá stæde hún enn í dag.

24. Enn þó seige eg ydur: þad, at bærelegra mun verda lande Sodoma á dómadeige, enn þer.

25. Á þeim sama tíma andsvarade Jesus og sagde: eg prísa þig, fader og Herra himens og jardar, at þú dulder þetta fyrer spekingum og forvitringum, og opinberader þad úngbørnum.

26. Ad sønnu fader, þvíad svo var þad þeckt fyrer þer.

27. Aller hluter eru mer í valld gefner, af mínum fødur, og engenn kenner sonenn nema faderenn, og engenn kenner fødurenn nema sonurenn, og hverum at sonurenn vill þad openbera.

28. Komed til mín aller þer sem ervidid, og þúnga erud hladner, eg vil endurnæra ydur.

29. Taked á ydur mitt ok, og læred af mer, því eg em hógvær og af hiarta lítelátur, og munud þer hvíld finna sálum ydrum.

30. Þvíad mitt ok er sætt, og mín byrde er lett.

## 12. Capitule.

1. Á þeim tíma geck Jesus um kornsæde á sabbathsdeige, og hans læresveinar voru húngrader, og tóku at tína axenn af, og at eta.

2. Enn er Pharisei sáu þad, søgdu þeir til hans: siá, þíner læresveinar gera hvad eigi sómer, á sabbathsdøgum at gera.

3. Enn hann sagde til þeirra: hafed þer egi lesid hvad David gerdi, nær hann, og þá, sem med hønum voru, húngradt?

4. Hvernenn at hann geck inn i Guds hús, og át þar skodunarbrauden, hver hønum leyfdest eigi at eta, ne helldur þeim sem med hønum voru, nema einumsaman prestunum.

5. Eda hafed þer egi leſid í lögmálenu, hverſu at preſtarner á ſabbathsdögum i muſterenu brióta ſabbathsdagenn, og eru þó án ſakar?

6. Enn eg ſeige ydur: at ſá er her, ſem muſterenu er meire.

7. Enn ef þer viſſud hvad þad være; á miſkun heſe eg þocknan og eigi á offre, hefdud þer eige aklanſa fordæmt.

8. Þvi mannſins ſonur er Herra, einnenn ſabbathsdagſins.

9. Og hann geck burt þadann leingra framm, og kom í þeirra ſamkunduhús.

10. Og ſiá, at einn madur var þar, ſá hafde viſnada hönd. Og þeir ſpurdu hann at og ſögdu: er þad nockud rett at lækna á ſabbathsdögum? Svo at þeir gætu áklagad hann.

11. Enn hann ſagde til þeirra: hver er ſá af ydur, ſem, hefir einn ſaud, og ef hann fellur á ſabbathsdögum í gryfiu, ſem eigi grípe hann og uppdrage?

12. Hvad miklu er madurenn ſaudnum betre? Fyrer þvi leifeſt á ſabbathsdögum godt at gera.

13. Þá ſagde hann til mannſins: rett þu út hönd þína, og hann rette hana út, og hún vard heil, ſem hin önnur.

14. Þá geingu Phariſei út, og helldu rád yfer hönum, hvernenn þeir mættu hönum fyrerfara.

15. Enn er Jeſus fornam þad, veik hann þadann; hönum fylgde og margt fólk efter, og þá alla læknade hann.

16. Og bannade þeim, at þeir gerdu hann openſkáraun.

17. Svo þad uppfylltest, hvad ſagt er fyrer Eſaiam ſpámann, er ſvo ſeiger.

18. Siáed, þad er minn þiónn, hvern eg útvalde, og minn elſkulegur, á hverum ſála mín hefur þócknan, yfer hann mún eg anda minn leggia, og ſá ſkal heidnum dómenn kunngera.

19 Egi mun hann kífa ne kalla, og eigi mun nockur heyra hans kall á ſtrætum.

20. Marenn reyr mun hann eigi ſundurmylia og rükanda hör eigi ú ſlecköa, þar til hann útfærer dómenn til ſigurs.

21. Og heidner munu á hans nafn vona

22. Þá var til hans hafdur diöfulódur madur, ſá er blindur var og máltaus, og hann læknade hann, ſvo at hinn blinde og dumbe talade, og ſá.

23. Og allt fólkid óttadeſt og ſagde: er þeſſe eigi ſonur Davids?

24. Enn er Phariſei heyrdu þad, ſögdu þeir: Eigi rekur þeſſe diöfla ödruvis út, nema fyrer Beelzebub diöflahöfdingia.

25 Enn Jeſus fornam þeirra hugſauer, og ſagde til þeirra, hvert rike ſem í ſiálfu ſer ſundurþyckt, mun eidaſt, og hver ſú borg eda hús, ſem í ſiálfri ſer er ſundurþyckt, fær eigi ſtaded.

26. Og ef einn ſathan rekur þann annann út, þá er hann ſundurþyckur móte ſiálfum ſer, hvernenn fær hans rike þá ſtadid?

27. Og ef eg útrek diöfla fyrer Beelzebub, fyrer hvern verda þeir þá af ydrum börnum útrekner? Af þvi verda þeir og ydrer dómendur.

28. Enn ef eg útrek diöfla med Guds anda, þá er Guds rike til ydar komid.

29. Eda hvernenn fær nockur ínngeingid í hins öfluga hús, og

hans búshlutum í burt ræni, utan svo se, hann binde ádur hinn osluga, og ræne sídann hans hús?

30. Hver hann er eigi med mer, sá er á móte mer, og hver eigi med mer safnar, sá sundurdreifer.

31. Fyrer því seige eg ydur: allar synder og lastaner verda fyrergefnar mønnum; enn løstun móte andanum mun egi fyrergefast.

32. Og hver hann talar nockud móte mannsins syne, hønum mun fyrergefast, enn hver sem talar nockud á móte heiløgum anda, hønum mun hverke fyrergefást í þessum heime ne ødrum.

33. Annadhvert seted gott tre, og mun ávøxturen gódur, ellegar seted vondt tre, og mun ávøxturin vondur, því at af ávextenum þeckest tred.

34. Þer nødrukyn! hvernenn meiged þer godt mæla, á medan þer erud vonder? Þad sem hiartad er fullt af, þad flytur út af munnenum.

35. Gódur madur frammflitur godt af gódum siód síns hiarta, enn vondur madur af vondum siód síns hiarta framflitur vondt.

36. Enn eg seige ydur, af hveru því fáfeingu orde, sem menn tala, munu þeir reikningskap gera á ytsta dóme.

37. Af þínum ordum munþú rettlætast, og af þínum ordum munþú fordæmast.

38. Þá svørudu nockorer út af Skriftlærdum og Phariseis og søgdu: meistare! ver villdum teikn af þer siá.

39. Hann svarade og sagde til þeirra: þetta vonda og hórunarsama slekt leitar teikns, og því mun ecki teikn gefast, nema teikn Jonæ spámans.

40. Því at svo sem Jonas var í kvide hvalsins þriá daga og þriár nætur, svo mun mannsins sonur vera midt í jørdu, þriá daga og þriár nætur.

41. Menn Ninive borgar munu uppríśa á efsta dóme med þessare kynslód, og munu hana fordæma, því ad þeir gerdu idran efter prædikun Jonæ, og siá, her er meire enn Jonas.

42. Drottningen af Sudre mun uppríśa á efsta dóme mót þessare kynslód, og mun hana fordæma, því ad hún kom af endemørkum jardar at heyra speke Salomonis, og siá, her er meire enn Salomon.

43. Nær óhreinn andeer farenn út af manne, reikar hann um þurra stade leitande hvíldar og finnur eigi.

44. Þá seiger hann: aftur vil eg snúa í mitt hús, þadann eg útfór; og nær hann kemur, finnur han þad tómt, sópad og fágad

45. Þá fer hann burt, og tekur siø adra anda med ser, þeir sem verre eru enn siálfur hann, og nær þeir eru innkomner, byggia þeir þar, og verdur þá þess manns sídara verra því hinu fyrra, svo mun og ske þessari vondu kynslód.

46. Sem hann var enn þetta at tala til fólksins, siá, þá stód móder hans og brædur þar fyrer utan, og villdu tala vid hann.

47. Þá sagde einn til hans: siá, at móder þín og brædur þíner standa úte, og vilia tala vid þig.

48. Hann svarade og sagde, til þess sem hønum þetta kunngerde: hver er mín móder, og hverer eru míner brædur?

49. Og hann rette út sína hønd yfer sína læresveina, og sagde,

flåed! Þar er mín móder og míner brædur.

50 Þvíad hver hann gerer vilia míns fødurs þess, sem á himnum er, sá er minn broder, syster og móder.

## 13. Capitule.

1. Á þeim sama deige geck Jesus útaf húsinu, og sette sig nidur vid siöenn.

2. Og margt fólk safnadest at hønum, svo hann ste á skip, og sat, og allt fólkid stód í sjørunne.

3. Og hann talade margt til þeirra í efterlíkingum og sagde: Siá, sá er sáde, geck út at sá.

4. Og þá hann sáde, fell sumt vid veigenn, og fuglar lómu og átu þad.

5. Enn sumt fell í grytta jørd, hvar þad hafde eigi mikla jørd, og rann sliótlega upp, þvíad þad hafde eigi jardar dýpt.

6. Enn sem sólenn rann upp, skrælnadest þad, og af því at þad hafde ecki rót, þá visnade þad.

7. Enn sumt fell á millum þyrna, og þyrnarner spruttu upp og kæfdu þad.

8 Enn sumt fell í góda jørd, og færde ávøxt, sumt hundradfalldann, sumt sextugfalldann, sumt þrítugfalldann.

9. Hver eyru hefir at heyra, sá heyre.

10. Og lærefveinarner geingu til hans og sogdu: Því talar þú til þeirra í efterlíkingum?

11. Hann svarade og sagde: ydur er gefid at understanda leyndadóma himnaríkis, enn þeim er þad ecki gefid.

12. Því hver hann gefur, hønum mun gefast svo hann gnóg hafe, enn sá sem ecki gefur, af hønum mun og takast, þad hann hefir.

13. Fyrer því, þá tala eg til þeirra í efterlíkingum, þvíad med siáande augum siá þeir ecki, og med heyrande eyrum þá heyra þeir ecki, þvíad þeir skilia þad eigi.

14. Og á þeim mun uppfyllast spádómur Esaiæ, er seiger: Med eyrnum munud þer heyra, og munud þer þad egi skilia, og med siánde augum munud þer siá, og ecki skynia.

15. Þvíad þessa fólks hiarta er forhardnad, og þeirra eyru eru þúngheyrd, og þeirra augu munu lanran lykiast svo at þeir ecki einnsinne med augum siáe, og med eyrum heyre, ne med hiarta skili, til at leidretta sig, svo at eg hiálpe þeim.

16. Enn sæl ern ydar augu, at þaug siá, og ydar eyru, at þau heyra.

17. Sannlega seige eg ydur: at marger spámenn og rettláter fystust at siá, hvad þer siáed, og hafa þat eigi sed, og at heyra hvad þer heyred, og hafa þad eigi heyrt.

18. Af því heyred efterlíkingu um sádmanuen.

19. Þá er nockur heyrer orded ríkesins, og understendur þad eigi, kemur hinn vonde, og hriffar burt hvad sád er í hans hiarta; þad er sá vid veigenn er sádur.

20. Enn þad sem í grytta jørd fell, er sá, þegar nockur heyrer orded, og sliótlega med fagnade medtekur þad.

21. Enn med því hann hafde ecki rót í ser, helldur hann vid umstundarsaker; og nær hrellingar og offókner hefiast fyrer ordsins saker, þá hneixlast hann jafnskiótt.

22. Enn þad sem á millum þyrna er sád, er sá, þegar nockur heyrer

ordid, og áhyggia þessarar veralldar og svikseme ríkedæmesins kæfir ordid, og færer ecki ávoxt.

23. Enn þad sem í góda jørd er sád, er sá, nær nockur heyrer ordid og underſtendur þad, og færer ávoxt, og sumt ber hundradfalldan, sumt sextugfalldann, sumt þrítugfalldann.

24. Adra efterlíking lagde hann þeim fyrer og sagde: Himnaríke er líkt þeim manne, sá er sáde gódu sæde i akur sinn.

25. Enn þá menn svâfu, kom hans óvinnur og sáde illgresi bland hveitesins, og fór burt.

26. Enn er sæded spratt upp og bar ávoxt, þá auglystest og illgresid.

27. Þá geingu þenararner til húsfødursins og søgdu: Herra, sáder þú eigi gódu sæde í akur þinn, hvadann kemur hønum þá illgresid?

28. Hann sagde til þeirra: þad hefir fiandmadurenn gert. Þá søgdu þenararner: Viltþu at ver førum og útlesum þad?

29. Hann sagde: nei, svo at þer upprætid egi hveitid underreins, nær þer útlesid illgresid.

30. Látid hvertveggia vaxa ásamt allt til kornskurdar, og á kornskern tíma, skal eg seigia til kornskurdarmannanna: Lesid fyrst illgresid saman, og bindid þad í bindini til brennslu, enn hveited samannsafnid í mína kornhlødu.

31. Adra efterlíking lagde hann framm fyrer þá og sagde: Himnaríke er líkt einu mustards korne, hvad einn madur tók og sáde í akur sinn

32. Hvad at minnst er allra sáda, enn nær þad sprettur upp, er þad stærst allra kálgrasa, og verdur eitt tre, svo at fuglar himens koma og byggia under þess kvistum.

33. Eina adra efterlíking talade hann til þeirra: Líkt er himnaríke súrdeige, þad ein kona tók og blandade vid þría mælera miøls, þar til þad syrdest allt í gegnum.

34. Þetta allt talade Jesus í efterlíkingum til fólksins, og fyrer utan efterlíkingar talade hann ecki til þeirra.

35. Svo at uppfylltest, hvad sagt er fyrer spámanninn, hann sem seiger: minn munn vil eg uppljúka í efterlíkingum, og heimuglega hlute mun eg útmæla frá uppbafi veralldar.

36. Þá let Jesus fólkid frá ser fara, og kom heim, og hans læresveinar geingu til hans, og søgdu: útþyd þú oss þá efterlíking um illgresid á akrenum.

37. Hann svarade og sagde til þeirra: Hann sem sáer gódu sáde, er mannsins sonur.

38. Enn akurinn er heimurenn, góda sádid eru ríkesins børn, enn illgresid eru børn þess vonda

39. Óvinnur sá, þeim sáde, er djøfullenn, enn kornskerutíminn er endir veralldar, kornskurdarmenn eru einglar.

40. Því líka sem nú verdur illgresid útlesid, og í elde brent, svo mun og ske í enda þessarer veralldar.

41. Mannsins sonur mun útsenda sína eingla, og þeir munu samann safna úr hans ríke øllum hneixlurum, og þeim er ránginde gera.

42. Og þeir munu kasta þeim í elldsins ofn, þar mun vera grátur og tannagnístran.

43. Enn þá munu rettláter lióma sem sól í ríke fødurs þeirra.

Hver eyru hefir at heyra, sá heyre.

44. Enn aftur þá er himnaríke líkt einum fólgnum fiesiód á akre, hvern ed madur fann og falde hann, og af þeim fagnade sem hann hafde yfer hønum, geck hann burt, og sellde allt hvad hann hafde, og keypte þann sama akur.

45. Og enn aftur er himnaríke líkt þeim kaupmanne sem at góðum perlum leitade.

46. Og þá hann fann eina forkostulega perlu, fór hann og sellde allt hvad hann hafde, og keypte þá somu.

47. Og enn aftur er himnaríke líkt nete því, sem í sió var kastad, med hverju af øllu fiskakyni dreigid verdur.

48. Enn nær þad er fullt, draga þeir þad í fiøruna, sitia síðann og samannlesa hina góðu í kerølld, enn vondum kasta þeir út.

49. Svo mun og ske í enda veralldar, at einglar munu útfara, og hina vondu frá rettlátum skilia.

50. Og þeim munu þeir kasta í elldsins ofn, hvar vera mun óp og tannagnístrán.

51. Og Jesus sagde til þeirra: Hafid þer allt þetta understadid? Þeir søgdu, já Herra. Þá sagde hann,

52. Fyrer því, hver sá skriftlærdur sem til himnaríkis mentadur er, hann líkist þeim húsfødur sem framm bar af síunm fiársiód nytt og gamallt.

53. Og þad skede, þá Jesus hafde endad þessar eftirlíkingar, at hann geck þadan.

54. Og kom til sinnar fóstur jardar, og kennde þeim í þeirra samkunduhúsum, svo at þeim hnyckte vid, og søgdu: Hvadan kemur þessum slík speke og kraftur?

55. Er þesse eigi timbursmidsins sonur? Heiter hans móder eigi Maria? og brædur hans Jacob og Joses, Simon og Judas.

56. Og hans syster, eru þær eigi allar her hiá oss? Hvadan kemur þessum þá allt þetta?

57. Og þeir hneixludust á hønum. Enn Jesus sagde til þeirra: einn spámadur er hverge í minne virdingu enn í sínu fødur lande, og í sínu eigen húsi.

58. Og eigi gerde hann þar morg teikn fyrer saker vantrúar þeirra.

## 14. Capitule.

1. Á þeim tíma heyrde Herodes fiordúngs høfdinge rykted af Jesu.

2. Og hann sagde til sinna þenara: þesse er Johannes skírare, hann er frá daudum upprisinn, og því gerast þesse kraftaverk af hønum.

3. Því ad Herodes hafde fángad Johannem, bundid hann og í fángelsi sett, fyrer saker Herodias húsfrú Philippi bródur hans.

4. Því ad Johannes hafde til hans sagt: þad er ecke rett, at þú hafer hana.

5. Og hann hefde giarnann aflífad hann, enn hann óttadest fólked, því ad þad hellt hann fyrer einn spámann.

6. Enn er Herodes hellt sinn fædingar dag, dansade hans dótter Herodias midt frammi fyrer þeim, og þad líkade Herodes vel.

7. Af því lofade hann henni med eyde, at gefa henni, hvers hún æskte

8. Og efter því hún var ádur tilleggiud af módur sinni, sagde

hún: Gef mer á diske høfud Johannis skrara.

9. Og tóununguriunvard hriagur, enn þó fyrer eidsins sater og þeirra sem med honum til bords sátu

10. Baud hann, at þad gæfist henni, og hann sendi út og afhøf dadi Johannem í myrkvastofir.

11. Og var høfud hans borid á diske og gefid stúlkunni, og hún færdi módur sinne.

12. Þá komu lærisveinar hans og tóku hans líkama og gróftu, komu og kungerdu þad Jesu.

13. Þegar Jesus heyrde þad, fór hann þadann á einu skipe alleina til eydemerkur: og þá fólkid heyrde þad, fylgde þad hønum á fæti úr stødunum.

14. Og Jesus geck framm og leit þann mikla múg, og sá aumur á þeim, og læknade þá af þeim, sem kránker voru.

15. At kvølldi gengu hans lærisveinar til hans og sogdu; þetta er ein eydemørk, og nóttenn lidur á, lát fólkid frá þer. at þad gánge í kauptún, og kaupe ser fædu.

16. Enn Jesus sagde til þeirra: Þeir hafa þess ecki þørf, at þeir gánge burt; gefid þer þeim at eta.

17. Þeir sogdu: Ver høfum ecki her nema fimm braud, og tvo fiska.

18. Hann sagde: Færid mer þaug híngad.

19. Og hann baud fólkinu at setiast nidur á grasid, og tók þaug fimm braud og tvo fiska, leit til himenns, þackade, og braut þaug, og feck sínum lærisveinunum braud, enn: enn lærisveinarner gáfu þaug fólkenu.

20. Og þeir snæddu aller og urdu sadder, og þeir tóku upp þær leifar sem afgeingu, tólf karfer fullar.

21. Enn þeir, sem etid høfdu, voru nær fimm þúsundirmanna, undanteknum konum og børnum.

22. Og jafnsnart neydde Jesus sína lærisveina til, at þeir gengu á skip, og færu fyrer hønum yfer um, þar til hann lete fólkid frá ser.

23. Og er hann hafde fólkid frá ser látid, geck hann einnsamall uppá fiallid at bidiast fyrer. Og um kvølldid var hann einn þar.

24. Enn skipid var þá midt á siónum, og hraktest í bylgiunum, þvíad vindurenn var þvert í móte.

25. Enn um fiórdu vakt næturinnar, kom Jesus til þeirra gángandi á siónum.

26. Enn er lærisveinarner sáu hann á siónum gánga, hræddust þeir, og sogdu; þad væri skrimsl, og kølludu upp af hrædslu.

27. Enn Jesus talade strax til þeirra og sagde: Verid hughraustir, eg em hann, ottist ecki.

28. Enn Petur svarade hønum og sagde: ef þú ert þad, Herra! þá bíód mer at koma til þín á vatnenn.

29. Og hánn sagde: Kom híngad! og Petur ste af skipinu og geck á vatninu, at hann kæme til Jesu.

30. Enn er hann leit meanann vind, og náde honum og tók at søckva, kallade og sagde: Herra hiálpa þú mer.

31. Enn Jesus rette jafnsnart høndina og greip hann, og sagde til hans: þú lítiltrúadur, hví efadest þú?

32. Og þeir stigu inn í skipid, og vindinn stillte.

33. Enn þeir sem á skipenu voru, kómu og fellu framm fyrer hønum, og sogdu: sannlega ert þu Guds sonur.

34. Og þeir fóru yfer um, og komu til landsins Genesareth.

35. Og er fólkid í þeim sama stad vard vart vid hann, sendu þeir út um allt þad land allt i kríng, og færdu til hans alla vanfæra menn.

36. Og bádu hann, at þeir mættu at eins snerta falld hans fata. Og aller sem hann snertu, urdu heilbrigder.

## 15. Capitule.

1. Þá komu til hans Skriftlærder og Pharisei af Jerusalem, og sögdu:

2. Því yfer troda þíner lærisveinar olldunganna uppsetningar, med því þeir þvo egi sínar hendur þá þeir brand eta?

3. Hann svarade og sagde til þeirra: fyrer því yfertroded þer þá Guds bodord fyrer ydvara uppsetninga?

4. Því Gud hefur skipad: heidra skaltu födur þinn og módur, og hver hann bölvar födur eda módur, sá skal dauda deya.

5. Enn þer kennid, at hver hann seiger til födursíns eda módur, þad er ein gáfa, hver, ef hún er af mer, þá kanntu hólpenn verda.

6. Af því sker þad, at engenn heidrar födur sinn ne módur fram armeir, og hafid svo ónytt gert Guds bodord fyrer ydars uppsetningz saker.

7. Þer hræsnarar, vel hefir Esaias spád af ydur, og sagt:

8. Þesse lydur nálægest mig med sínum munni, og heidrar mig med vörum sínum.

9. Enn þeirra hiörtu eru lángt frá mer, at ónytt þióna þeir mer, á medann þeir kenna þær kenningar, sem ecki eru annad enn bodord manna.

10. Og han kallade fólkid til sín, og sagde til þeirra: Heyred þer og understanded þad.

11. Hvad sem ínngeingur í munnenn, þad saurgar egi mannenn, helldur hvad sem framm af munnenum geingur, þad saurgar mannen.

12. Þá geingu hans lærisveinar at hönum og sögdu: veitstu at þá þeir Pharisei heyrdu þad ord, hneixludust þeir?

13. Enn hann svarade og sagde: öll plantan, hveria minn himneskur fader plantar egi, mun upprætast.

14. Látid þá fara, þeir eru blinder og blindra leidtogar, ef blindur leider annann blindann, þá falla beir báder í gröfena.

15. Þá svarade Petur og sagde til hans: þyd oss þessa eftirlíking.

16. Jesus sagde til þeirra: Erud þer enn svo skilningslauser?

17. Skyned þer ecki enn nú, at allt hvad í munnenn ínngeingur, þad hverfur í magann, og verdur fyrer edlelega rás útskúfad.

18. Enn hvad af munnenum framgeingur, þad kemur af hiartanu, og þad saurgar mannenn.

19. Þvíad útaf hiartanu koma vondar hugsaner, manndráp, hórdómur, frillulífe, þiófnadur, lúngvitnan, lastaner.

20. Þetta eru þeir hluter, sem mannenn saurga; enn med óþvegnum höndum at eta, saurgar egi mannenn.

21. Enn Jesus geck í burt þadann, og fór í landsálfur Tyri og Sidonis.

22. Og siá at ein Kanversk kona geck útaf þeim sömu takmörkum, kallade efter hönum og sagde: O

Herra sonur Davids, miskuna þú mer, mín dótter kvelst illa af diøflinum!

23. Og hann svarade henne engu orde, hans læresveinar geingu til hans, bádu hann og søgdu: ger henne úrlausn, af því hún kallar efter oss.

24. Enn hann svarade og sagde, eigi em eg sendur, nema til fortapadra sauda af húsi Israels.

25. Enn hún kom og fell nidur fyrer honum og sagde: Hiálpa mer Herra.

26. Enn hann svarade og sagde: þad er ecki terlegt, at taka braudid frá børnum, og kasta því fyrer hunda.

27. Enn hún sagde: Já Herra, enn þó eta hundar af molum þeim, sem detta af bordum drottna þeirra.

28. Þá svarade Jesus og sagde til hennar: ó þú kona, mikel er þín trú, verde þer, svo sem þú villt: og á þeirre sømu stundu vard hennar dótter heilbrigd?

29. Og Jesus geck þadann leingra áfram, og kom til siáfarins i Galilea, og geck uppá eitt fiall og sette sig þar.

30. Og margt fólk dreif til hans, hafande med ser hallta, blinda, máullasa, vanada, og marga adra og snerudu þeim framm fyrer fætur Jesu, og hann læknade þá.

31. Svo at fólkid undradest, er þad sá mállausa mæla, og vanada heila, hallta gánga, blinda siáande, og þeir vegsømudu Gud Israels.

32. Og Jesus kallade sína læresveina til sín, og sagde: Mig aumkar yfer fólkid, því ad þeir hafa nú þriá daga hiá mer verid og hafa ecki til matar, og fastande vil eg þá eigi frá mer fara láta, svo at eigi verde þeir húngurmorda á veigenum

33. Þá søgdu læresveinarner til hans: Hvadann tøkum ver svo mørg braud í eydemørku, at ver sedium med jafnmargt fólk?

34. Jesus sagde til þeirra: hversu mørg braud hafed þer? Þeir søgdu, siø, og fá fiskakorn.

35. Og hann baud fólkenu, at þad setteist nidur á jørdena.

36. Og tók þau siø braud og fiska, og er hann hafde þackad, braut hann þaug, og gaf læresveinunum, og hans læresveinar gáfu þaug fólkenu.

37. Og þeir átu aller og urdu sadder, og tóku upp þad sem yfer var af leyfum, siø karfer fullar.

38. Enn þeir sem etid høfdu, voru fióra þúsunder manna, fyrer utan konur og børn,

39. Og er hann hafde fólkid frá ser látid, stie hann á eitt skip, og kom í endemerkur Magdalalands.

## 16. Capitule.

1. Þá geingu Pharisei og Saducei til hans, freistandi hans, og bádu hann at syna ser teikn af himne.

2. Enn hann svarade þeim og sagde: á kvølldum seiged þer, þad verdur gódur dagur, því at himenrode er.

3. Og á morgnum seiged þer: í dag verdur hreggvidre, því ad himenenn er raudur og dimmur. Þer hræsnarar, himensins ásiánu kunned þer at dæma; kunned þer þá eigi og at dæma teikn þessara tíma?

4. Þesse vonda og hórunarsama kynslód æsker teikns, og henne skal ecki teikn gefid verda, nema teikn

Jónæ spámanns. Og hann forlet þá, og geck i burt.

5. Og er hans læresveinar vorn yferum farner, høfdu þeir gleymt braud med ser at taka.

6. Enn Jesus sagde til þeirra: Siáed til, og vakted ydur fyrer súrdeige þeirra Phariseara og Saduceara.

7. Þá þeinktu þeir med ser og sogdu: Þad mun vera, at ver høfum ecki braud med osz tekid.

8. Enn er Jesus fornam þad, sagde hann til þeirra: Þer litil-trúader, hvar fyrer húgsed þer um þad, þó at þer hafed ecki braud med ydur haft?

9. Skiled þer enn ecki? Minnest þer eigi á þau fimm braud á medal fimm þúsunda, eda hversu margar karser, at þer tókud þá upp?

10. Og eigi á þaug siø braud á medal fiogra þúsunda, og hversu margar karser at þer tókud þá upp?

11. Hvar fyrer skiled þer þá eigi, at eg ságde ydur ecki af braudenn, þó eg segde: vaktid ydur fyrer súrdeigi þeirra Phariseara og Saduceara.

12 Þá underskódu þeir, at hann hafde eigi sagt þeim, þad þeir skyldu vara sig vid surdeige braudsins, helldur vid lærdóme Phariseara og Saduceara.

13. Þá kom Jesus í landsálfur borgarennar Cesarea Philippi, og spurde sína læresveina at og sagde: Hvad seigia menn til, hver mannsins sonur se?

14. Þeir søgdu: sumer seigia þú sert Johannes skírare, enn adrer, þú sert Elias; sumer at þú sert Jeremias, edur einn af spámonnonum.

15. Hann sagde til þeirra, hvern seiged þer mig þá at vera?

16. Þá svarade Simon Petrus, og sagde: Þú ert Christur, sonur Guds lifanda.

17. Enn Jesus svarade og sagde til hans: Sæll ert þu Simon Jonas sonur, þvíat holld og blód birte þer þad egi, helldur minn himneskur fader.

18. Og eg seige þer: þú ert Petrus, og yfer þennann hellustein mun eg uppbyggia mína christne, og port helvítanna skulu ecki megn hafa í gegn henne.

19. Og þer mun eg gefa lykla himnaríkis, og allt hvad þú bindur á jørdu, skal á himnum bundid vera, og allt hvad þú leysir á jørdu, skal á himnum leyst vera.

20. Þá fyrerbaud hann sínum læresveinum, at þeir segdu þad nockrum, at hann være Jesus, sá Christus.

21. Þadann í frá tók Jesus til at auglýsa fyrer sínum læresveinum, hvernenn hønum byriade at gánga til Jerusalem, og margt at lída afølldungum, þeim yppurstu prestum, skriftlærdum, og líflátenn verda, og á þridia deige upp at rísa.

22. Enn Petur tók hann til sín, átalde hann og sagde: Herra! þirm siálfum þer, þad hende þig engvanneiginn.

23. Enn hann snerest vid og sagde til Peturs: far frá mer satan, þú ert mer hneixlanlegur, þvíad þú skilur eigi hvad Guds er, helldur hvad manna er.

24. Jesus sagdi þá til sinna læresveina: Ef nockur vill mer eftersylgia, þá afneite hann siálfum ser, og taki sinn kross uppá sig og fylge mer efter.

25. Þvíad hver hann vill sitt líf forvara, sá mun því tína, enn

hver sinn lise tiaer fyrer mínar saker, sá mun þad finna.

26. Því hvad stodar þad mann enn, þó hann vinne allann heimenn, enn seinge tión á sinne sálu? Edur hvad mun madur sá gefed, þar hann sálu sína med endurleyse?

27. Þvíad þad mun ske, at mannsins sonur mun koma í dyrd síns fodurs, med sínum englum, og þá mun hann giallda hverum sem einum, efter sínum verkum.

28. Sannlega seige eg ydur: at nockorer standa þeir her, sem daudann munu eigi smacka, þar til þeir siá mannsins son komande í sinu ríte.

## 17. Capitule.

1. Og sex døgum þar efter, tók Jesus med ser Petrum og Jacobum, og Johannem bródur hans, og hafde þá afsídis uppá eit hátt fiall.

2. Og auglystest fyrer þeim, og hans ásiána skein sem sól, enn hans klæde urdu svo biort, sem liós.

3. Og siá! At hønum birtust þeir Moyses og Elias, og tøludu vid hann.

4. Enn Petur ansade og sagde til Jesu: Herra, her er godt at vera. Ef þú villt, þá vilium ver gera þriár tialldbúder, þer eina, Moyse eina, og Elie eina.

5. Og þá er hann var þetta at tala, siá at biart sky umskygde þá, og siá, at ein rødd úr skyenu sagde: Þesse er sonur minn elskulegur, at hverium mer vel þocknast, hønum skulud þer hlyda.

6. Og er lærisveinarner heyrdu þad, fellu þeir framm á sínar ásiáner, og urdu miøg hrædder.

7. Enn Jesus geck til þeirra, tók á þeim og sagde: Standed upp, og vered eigi hrædder.

8. Enn er þeir litu upp sínum augum, sáu þeir engann, nema Jesum alleina.

9. Og er þeir geingu ofan af fiallenu, baud Jesus þeim og sagde: Þer skulud engum þessa sión seigia, þar til at mannsins sonur er upprisinn af dauda.

10. Og hans lærisveinar spurdu hann at, og søgdu: Hvad seigia þiner skriftlærdu þá, þad Elias hlióti ádur at koma?

11. Jesus svarade og sagde til þeirra: Elias á at sønnu ádur at koma, og alla hlute at lagfæra.

12. Enn eg seige ydur þad: Elias er alla reidu komenn, og þeir þecktu hann eigi, helldur gerdu þeir vid hann, hvad hellst þeir villdu. Svo mun og mannsins sonur verda af þeim at lída.

13. Þá underftódu lærisveinarner, þad hann hafde sagt af Johanne skírara.

14. Og er þeir komu til fólksins, geck einn madur til hans og fell til fóta hønum.

15. Og sagde: Herra! Miskuna þú syne mínum, þvíad hann er túnglsiúkur, og er herfelega píndur; oft fellur hann á elld og þráttsinnis í vatn.

16. Eg hafde hann og til þinna lærisveina, og þeir gátu hønum eigi hiálpad.

17. Enn Jesus svarade og sagde: Ó þú vantrúud og rángsnúinn kynslód, hversu leinge skal eg hiá ydur vera? Hversu leinge á eg ydur at lída? Hafid han híngad til mín.

18. Og Jesus hastade á hann, og døsfullinn fór útaf hønum, og

sveirneinn vard heilbrigdur á samre
stundu.
19. Pá geingu læresveinarner
heimuglega til Jesu, og søgdu:
Fyrer því gátum ver egi rekid
hann út?
20. Jesus svarade og sagde til
þeirra: Fyrer ydrar vantrúar saker,
því eg seige ydur fyrer sann; ef
þer hefdud trú svo sem mustards
korn, mættud þer seigia fialle þessu:
Far þú hedann og þángad, og
munde þad fara, og ecki munde
ydur ómøgulegt vera.
21. Enn þetta kyn rekst egi út
nema med bæn og føstu.
22. Enn sem þeir sysludu um í
Galilea, sagde Jesus til þeirra:
Efterkómande er; þad mannsins
sonur mun ofurselldur verda í
manna hendur.
23. Og þeir munu lífláta hann,
og á þridia deige mun hann upprísa:
og þeir urdu nærsta hriggver.
24. Og er þeir komu til Caper-
naum, geingu þeir at Petre, sem
skattgiallded uppbáru og søgdu:
Ydar meistare, plagar hann eigi at
gialldа skatt?
25. Hann sagde, já. Og er
hann kom heim, kom Jesus fyrr
at hønum og sagde: Hvad lytst
þer Simon, af hverium taka jard-
leger konungar toll edur skatt-
pening? Af sínum børnum, edur
af annarlegum?
26. Petur sagde til hans: Af
annarlegum. Jesus sagde þá til
hans: Pá eru børnenn frí
27. Enn svo at ver seum þeim
eigi at hneixlan, þa far til siáfar,
og kast út aungle, og þann fisk
sem fyrstur kemur upp, tak hann,
og er þú opnar hans gyn, muntu
finna eun stater, þá sømu tak þú
og gef hønum fyrer mig og þig.

# 18. Capitule.

1. A þeirre sømu stundu, geingu
læresveinarner til Jesum, og søgdu:
Hver er mestur í himnaríke?
2. Jesus kallade eitt barn til
sín og sette þad midt á millum
þeirra.
3. Og sagde: Sannlega seige
eg ydur: nema þer snúest, og verdid
svo sem smábørn, munud þer egi
koma í himnaríke.
4. Hver siálfur sig læckar, svo
sem barn þetta, sá er mestur í
himnaríke.
5 Og hver sem medtekur eitt
þvílíkt barn í mínu nafne, sá
medtekur mig.
6. Enn hver hann hneixlar einn
af þessum hinum smáu, sem á mig
trúa, þarfara være hønum, at
mylnusteinn heingdest um háls
hønum, og være i sió søktur, þar
hann er diúpastur.
7. Ve se heimenum fyrer hneixl-
aner. Par hlióta þó hneixlaner
at koma, enn þó se ve þeim manne,
fyrer hvern hneixlanenn kemur.
8. Enn ef þín hønd eda þinn
fótur hneixlar þig, þa sníd hann
af og snara hønum frá þer, betra
er þer inn at gánga til lífsins hall-
tur og handarvane, enn þad þú
hafer tvær hendur edur tvo fætur,
og verder í eylífann elld kastadur.
9. Og ef auga þitt hneixlar þig,
þá, slít þad út og snara því fra þer,
betra er þer eineygdum inn at
gánga til lífsins, enn þad þú hafer
tvø augu, og verder í helvítiskann
elld kastadur.
10. Siáed til at þer forsmáed
egi einn af þessum smælinginum,
því ad eg seige ydur: at þeirra eing-
lar á himnum siá alltíd míns fødurs
auglit a himnum.

11. Þvíað mannsins sonur er komenn, at gera hólpið, hvad fortapað var.

12. Hvad virdest ydur? Ef einnhver madur hefir hundrad sauda, og villist einn af þeim? Skilst hann eigi vid þá níu og níutíu á fiøllum uppe, og fer at leita at þeim sem villtist?

13. Og ef svo sker, at hann finnur hann, sannlega seige eg ydur, at hann fagnar meir yfer hønum, enn yfer hinum níu og niutíu sem egi villtust.

14. Svo er eigi vili fødurs ydars; sem á himnum er, at einn af þessum smáu tapest.

15. Enn ef bróder þinn brytur vid þig, far þú, og straffa hann á millum þín og hans eins samans; ef hann heyrer þig, þá hefur þú þinn bródir unned.

16. Enn ef hann heyrer þig eigi, þá tak einn edur tvo til þín, svo at í munne tveggia edur þriggia votta, stande øll málesne.

18. Nú ef hann heyrer eigi þeim, þá seig þad samkundunne. Enn ef hann heyrer eigi samkundunne, þá hallt þú hann, sem annann heidingia, og tollheimtumann.

18. Sannlega seige eg ydur: hvad hellst þer binded á jørdu, skal og á himnum hundid veraz og hvad hellst þer leysed á jørdu, skal leyst vera á himne.

19. Frammveigis seige eg ydur þad: ef tveir af ydur samtaka á jørdu, um hvern hlut sem þad er, at þeir vilia bidia, skal þeim veitt verda af mínum fødur, sem á himnum er.

20. Þvíad hvar tveir eda þrír samansafnader eru í mínu nafne, þar em eg midt á millum þeirra.

21. Þá geck Petur til hans og sagde: Herra, hversu oft skal eg mínum bródur, þeim sem vid mig brytur, fyrergefa? Er þad nóg siøsinnum?

22. Jesus sagde til hans: Eg seige þer: eigi siøsinnum, helldur siøtígesinnum siøsinnum.

23. Fyrer því er himnaríke líkt þeim kounnge, sem reikna villde vid þióna sí na.

24. Og er hann tók til at reikna, kom einn fyrer hann, sá er hønum var skyldugur um tíu þusund punda.

25. Enn þá hann hafde ecki til, hvad hann skyllde giallda, baud herrann at selia hann og hans húsfrú og hans børn, og allt hvad hann átte, og borga med.

26. Þá fell sá þiónn framm, tilbad hann og sagde: Herra, haf þolinmæde vid mig, allt skal eg þer giallda.

27. Þá sá herrann aumur á þeim þióni, og let hann lausann, og gaf hønum einnenn upp skulldena.

28. Þá geck sá sami þióun út, og fann einn af sínum samlagsþiónum, sá var hønum hundrad peninga skylldugur, og hann greip hann, og tok fyrer kverkar hans og sagde: Giallt þú mer, hvad þú ert mer skylldugur.

29. Þá fell hans samlags þiónn framm, bad hann og sagde: Haf þolinmæde vid mig, því allt skal eg þer giallda.

30. Enn hann villde eigi, helldur fór hann til og let hann í dyplistu, þar til hann hafde borgad, þad hann var skylldugur.

31. Enn er hans samþiónar sáu hvad skede, urdu heir møg hriggver vid, komu og under-

vísudu sínum herra, allt hvad gerst hafde.

32. Þá kallade hans herra hann fyrer sig, og sagde til hans: Þú hinn vonde þiónn, alla þessa skulld gaf eg þer til, med því þú badst mig.

33. Skyllder þú þá eigi miskunsamur vera vid þinn samlags þión, líka sem eg var þer miskunsamur.

34. Og hans herra vard reidur, og ofurselldе hann kvölurunum, þángad til hann borgade allt, hvad hann var skylldugur.

35. Svo mun og minn himneskur fader gera vid ydur, ef þer fyrergefid eigi af ydrum hiörtum hver einn sínum bródur hans misgerder.

## 19 Capitule.

1. Og þad skede, sem Jesus hafde lyktad þessar rædur, at hann fór af Galilea og kom í endemerkur Gydinga-lands ödrummeiginn Jordanar.

2. Og margt fólk fylgde hönum efter, og þar læknade hann þá.

3. Þá geingu Pharisæi til hans, freistudu hans og sögdu til hans: Er þad nockud rett, at madurinn skili sig vid sína eigen-konu fyrer hvera sem eina sök?

4. Enn hann svarade og sagde til þeirra: Hafed þer eigi lesid, at sá er í upphafe skapade manneнn, hann gerde þad, at vera skyllde einn madur og kona.

5. Og sagde: Fyrer því mun madurenn forláta födur og modur, og vera hiá eigenkonu sinne, og þaug tvö munu eitt holld vera.

6. Svo eru þaug nú eigi tvö, helldur eitt holld, þar fyrer, hvad Gud hefir samanteingt, þad skal madurinn eigi í sundurskilia.

7. Þá sögdu þeir: Hví baud Moyses þá, at gefast skyllde skilnadarskrá, og skilia sig vid hana?

8. Hann sagde til þeirra: Moyses hefir fyrer hardúd ydars hiarta leyft ydur at forláta húsfreyur ydar, enn af upphafe var þad egi svo.

9. Enn eg seige ydur þad: hver sína eigenkonu forlætur, nema þad se fyrer hórunar sök, og kvongast annare, sá drýger hór. Og hver fráskilinne kvongast, sá drýger og svo hór.

10. Þá sögdu lærisveinarner til hans: Ef svo er háttad manns-ins málefnum vid eigenkonuna, þá er eigi godt at kvongast.

11. Enn hann sagde til þeirra: Þetta ord fá egi aller höndlad, helldur þeir, hverum þad er gefid.

12. Því ad þar eru nockrer gelldingar, sem svo verda af modurkvide fædder; og þeir gelldingar eru nockrer, hverer af mönnum eru gelldter; og þar eru og líka þeir gelldingar sem sig siálfa hafa gelldt fyrer himnaríkis saker. Sá grípid getur, hann grípe þad.

13. Þá voru smábörn til hans færd, svo at hann legde hendur yfer þau, og bædest fyrer, enn lærisveinarner ávítudu þá.

14. Enn Jesus sagde til þeirra: Láted börnenn kyrr, og forbióded þeim eigi til mín at koma, því ad slíkra er himnaríke.

15. Og er hann hafdi hendur yfer þau lagt, geck hann þadan.

16. Og siá, at einn geck at hönum og sagde: Góde meistare! hvad skal eg þess godt gera, at eg eignest eylíft líf?

17. Enn hann sagde til hans: Hvad kallar þú mig góðann, eing-

enn er góður utan alleina Guð. Enn ef þú villt til lífsins ínngánga, svo hallt þú boðorðenn.

18. Hann sagðe þá til hans: Hver hellst? Jesus sagðe egi skaltþú mann vega: egi skaltþú hóraſt: egi skaltþú stela: egi skaltþú liúgvitne mæla.

19. Heiðra skaltþú foður þinn og móður: og elska skaltþú náunga þinn svo sem siálfann þig.

20. Þá sagðe hinn únge maður til hans: Þetta allt hefi eg halldið frá barnæsku minne, hvað brestur mig þá?

21. Jesus sagðe til hans: Ef þú villt algerdur vera; far þú burt og sel allt hvað þú hefir, og gef fátækum, og muntþú þa fióð hafa á himne, og kom og fylg mer efter.

22. Og er hinn únge maður heyrðe það orð, geck hann hriggur fra hønum, því að hann hafði miklar eignir.

23. Enn Jesus sagðe til sinna lærefveina: Sannlega seige eg yður, at einn ríkur maður kemur torvellidlega í himnaríke.

24. Og enn seige eg yður: það auðvelldara er úlfballdanum at smiúga gegnum nálar auga, enn ríkum manne, at koma i Guðs ríke.

25. Og er hans læresveinar heyrðu það, urðu þeir miøgóttaſleguer, og søgðu: Hver fær þá hialpaſt?

26. Enn Jesus leit við þeim, og sagðe til þeirre: Hiá mønnum er það ómøgulegt, enn hiá Guðe er allt møgulegt.

27. Þá svaraðe Petur og sagðe til hans: Siáþú, ver forletum allt, og fylgdum þer efter, hvað skulum ver hafa í staðinn?

28. Enn Jesus sagðe til þeirra: Sannlega seige eg yður, at þer, hverer mer hafið efterfylgt, þer skuluð í endurfæðingunne, þá er mannsins sonur situr á stóle sinnar tignar, sitia einnenn á tólf stólum, dæmande tólf kynkvíslir Israels.

29. Og hver hann forlætur hús eða bræður, systur, foður eða móðer, eða eiginnkonu eða born, eða akra fyrer míns nafns saker, sá mun hundraðfallldt í staðinn taka, og erfa eylíft líf.

30. Enn marger þeir sem eru fyrster, verða síðarster, og þeir sem síðarster eru, verða hiner fyrstu.

## 20. Capitule.

1. Himnaríke er líkt þeim húsfoður sem utgeck um morgunenn, verkmenn at leigia í víngarð sinn.

2. Enn at gerdum samninge við verkmennena um einn pening til daglauna, sende hann þá í sinn víngarð.

3. Og nær þriðiu stund geck hann út, og leit aðra iðiulausa standa á torgenu.

4. Og sagðe til þeirra: Fareð þer og svo í víngarðenn, og hvað rett er mun eg gefa yður.

5. Þeir geingu og þángað. Og enn geck hann út aftur, um siøttu og níundu stundu, og gerðe svo líka.

6. Enn um elleftu stund geck hann út, og fann enn aðra standa iðiulausa, og sagðe til þeirra: Hvar fyrer standeð þer her allann dag iðiulauser?

7. Þeir søgðu til hans: Því að eingenn hefir leigt oss. Hann sagðe til þeirra: Fareð þer og í víngarðenn, og hvað rett er, skuluð þer fá.

8. Enn þá kvølld var komid, sagde herrann víngardsins til síns rádsmanns: kallaþú verkmennena og gialld þeim verkkanpid. Og tak til á hinum seinasta og allt til hins fyrsta.

9. Þá komu þeir sem um elleftu stund leigder voru, og hver feck sinn pening.

10. Enn er hiner fyrstu komu, meintu þeir, þad þeir mundu fá meira; og hver þeirra feck sinn pening.

11. Og þá er þeir høfdu hann medtekid, møgludu þeir á móte húsføđurnum.

12. Og søgdu: Þesser seinustu hafa eina stund erfidad; og þú gerder þá oss jafna: ver sem borid høfum byrde og hita dagsins.

13. Enn hann svarade og sagde til eins þeirra: vinur! eigi gere eg þer órett. Ertþú eigi ásáttur ordenn vid mig um einn pening?

14. Tak hvad þitt er, og far burt. Enn þessum seinasta vil eg gefa svo sem þer.

15. Eda hefi eg enga makt til at gera af mínu hvad eg vil? Ertþu þar fyrer rángeygdur, þó at eg se gódgiarn?

16. Svo munu hinir sídaster verda hiner fyrstu, og fyrster hiner sídustu. Þvíad marger eru kallader, enn fáer útvalder.

17. Og hann ferdadist upp til Jerusalem: og tók þá tólf lærisveina serilage til sín á veigenum, og sagde til þeirra.

18. Siáid! ver reisum nú upp til Jerusalem, og mannsins sonur mun ofurseliast prestahøfdingum og skriftlærdum; og þeir munu hann fordæma til dauda.

19. Og ofurselia hann heidingum til at spottast og húdstrykiast, og krossfestast; og á þridia deigenum hann upp aftur rísa.

20. Þá geck moder Zebedei barna til hans, med sonu sína, fallande fyrer hann framm, og bad nockurs af hønum.

21. Og hann sagde til hennar: Hvad vilt þú? Hún sagde til hans: Lát þessa mína tvo sonu sitia í ríke þínu, einn til þinnar hægre handar, og annann til þinnar vinstri handar.

22. Enn Jesus svarade og sagde: Þer vited ecki hvers þer bided. Geted þer þann kaleik drucked hvern eg mun drecka, og þeirre skírn skírst, hverre eg mun skírast? Þeir søgdu til hans: Já vel.

23. Og hann saade til þeirra: minn kaleik munu þer at sønnu drecka, og þeirre skírn, hverre eg skírest: munud þer skírast. Enn þad, at sitia til minnar hægre og vinstre handar, er eigi mín, ydur at gefa; helldur þeim, hverum, þad er fyrerbúid, af mínum fødur.

24. Og er þeir tíu heyrdu þad: þycktust þeir þeim tveimur brædrum.

25. Enn Jesus kallade þá til sín, og sagde: Þer vitid at veralldleger høfdingiar drottna; og þeir sem vollduger eru, hafa makt.

26. Svo skal eigi vera ydra á milli; helldur hver hann vill ydra á mille volldugur vera, se sá ydar þenare.

27. Og hver ydra sem fremstur vill vera, sere hann ydra þiónn.

28. Líka svo sem mannsins sonur kom eigi, at hann lete ser þiona, helldur uppá þad hann þiónade, og gæfe sitt líf til endurlausnar fyrer marga.

29. Og þá er þeir geingu út af Jericho: fylgde hønum margt fólk efter.

30. Og siá! tveir blinder sátu vid veigenn, og þá þeir heyrdu þad; at Jesus geck þar framm hiá: kölludu þeir og sögdu: ó Herra, sonur Davids! miskuna þú ockur!

31. Enn fólkid hastade á þá, at þeir þegdu; enn þeir kölludu því meir, og sögdu: O Herra, sonur Davids! miskuna þú ockur!

32. Og Jesus stadnæmdest, kallade á þá og sagde: Hvad viled þid, at eg skule gera yckur?

33. Þeir sögdu til hans: Herra! þad, at vor augu upplúkest.

34. Enn Jesus sá þar aumur á, snart augu þeirra; og jafnskiótt urdu þeirra augu siáande aftur; og þeir fylgdu hönum efter.

## 21. Capitule.

1. Þá er þeir nú komu nærre Jerusalem, og voru komner til Bethphage vid fialled Oliveti, sende Jesus út tvo sína læresveina.

2. Og sagde til þeirra: Fared þid í þad kauptún sem fyrer yckur er, og strax munud þid finna ösnu bundna, og fola hiá henne: leysid þaug, og leidid til mín.

3. Og ef einhver seiger nockud til yckar, þá seiged: at herrann hafe þeirra þörf; og jafnsnart mun hann láta þaug laus.

4. Enn allt þetta skede svo at uppfylltest, hvad sagt er fyrer spámannenn, er seiger:

5. Seiged dotturinne zion: Siá, þinn konungur kemur til þín hógvær, sitiande á ösnu og á fola klifbærrar ösnu.

6. Enn lærisveinarner geingu burt, og gerdu svo sem Jesus hafde bodid þeim.

7. Og sóktu ösnuna og folann, og lögdu yfer þau sín klæde, og settu hann þar uppá.

8 Enn margt af fólkenu breidde sín klæde á veigenn; og adrer hiuggu kvistu af triánum, og dreifdu þeim á veigenn

9. Enn þad fólk: sem fyrer geck og efter fylgde, kallade og sagde: Hosianna syne Davids, lofadur se sá sem kemur í nafne drottins: hosianna í hædstum hædum.

10. Og er hann fór inn í Jerusalem, var öll borgenn uppvægd, og sagde: Hver er þesse?

11. Enn fólkid sagde: Þetta er Jesus, spámadur af Nazareth úr Galilea.

12. Og Jesus geck inn í Guds mustere, og rak út alla seliendur og kaupendur í musterenu, og bordunum verdslunarmanna og stólum þeirra, er dúfur seldu, hratt hann um.

13. Og sagde til þeirra: Skrifad er: mitt hús skal bænahús kallast, enn þer hafid gert þad at spillvirkia bæle.

14. Og til hans geingu blinder og haltter í musterid, og hann læknade þá.

15. Enn er kennemanna höfdingiar og skriftlærder sáu þá dásamlega gerninga, sem hann gerde, og þad börnenn kölludu í musterunu og sögdu: Hosianna þeim syne Davids! Reiddust þeir.

16. Og sögdu til hans: Heyrer þú nockud hvad þesser seigia? Jesus sagde til þeirra: Hafed þer alldrei lesed þad: Af munne úngbarna og brióstmylkinga hefir þú lofid tilreidt.

17. Og hann forlet þá og geck útaf borgenne til Bethanien, og dvalde þar.

18. Enn at morgne, er hann

geck aftur til borgarennar, húngrade hann.

19. Og hann sá eitt fíkintre vid veiginn, og geck þángad at, og fann ecki á því, nema einasta blødenn; og sagde til þess: Hedan í frá vaxe alldrei nockur ávøxtur af þer, og þad fíkintre visnade upp jafnsnart.

20. Og er læresveinarner sáu þad; undrudust þeir og søgdu: Hvernenn er fíkintred svo snart visnad?

21. Enn Jesus svarade og sagde til þeirra: Sannlega feige eg ydur; ef þer hafid trúna og efid ecke: þá munud þer eigi einasta gera slíkt vid fíkintred, helldur, ef þer segdud þessu fialle: tak þig upp og sleing þer í sióenn; þa munde þad ske.

22. Og allt hvad þer bided í bænenne; ef þer trúed því, þá munud þer þad ødlast.

23. Og sem hann kom í musterid, geingu til hans, sem hann var at kenna, prestahøfdingiar og ølldungar lydsins, og søgdu: út af hvada makt gerer þú þetta; og hver gaf þer þessa makt?

24. Enn Jesus svarade og sagde til þeirra: Eg vil og spyria ydur at einu orde, ef þer seiged mer þad; vil eg seigia ydur, út af hvada makt eg geri þetta.

25. Skírn Johannes, hvadan var hún; hvert af himne, eda af mønnum? Enn þeir hugsudu med ser, og søgdu: Ef ver seigium, hún se af himne, þá seiger hann til vor: því trúdud þer hønum þá eigi!

26. Enn ef ver seigium, hún hafe verid af mønnum, þá meigum ver óttast fólkid, því ad aller helldu Johannem fyrer spámann.

27. Og þeir svørudu Jesu og søgdu: Ver vitum eigi. Hann sagde þá til þeirra: Svo seige eg ydur eigi helldur, af hverre makt eg geri þetta.

28. Enn hvad lítst ydur? Madur nockur hafde tvo sonu, og geck til hins fyrsta og sagde: Sonur minn! far þú í dag at vinna í víngarde mínum.

29. Enn hann svarade og sagde: Eigi vil eg þad gera: Eftirá idrade hann þessa, og geck í burt.

30. Og hann geck til hins annars, og sagde slíkt hid sama; enn hann svarade og sagde: Já herra, og fór eigi.

31. Hver af þeim tveimur gerde fødursins vilia? Þeir søgdu til hans: Hinn fyrste. Jesus sagde til þeirra: Sannlega seige eg ydur, at tollheimtarar og pútur meiga fyrre komast í himnaríke, enn þer.

32. Johannes kom til ydar og kende ydur þann retta veg, og eigi trúdud þer hønum: enn tollheimtumenn og pútur trúdu hønum. Og þó at þer sæud þetta vel, gerdud þer enga yferbót; svo at eftirá hefdud þer hønum trúad.

33. Heyred enn adra eftirlíking. Húsfader nockur var þar, sá sem plantade víngard, og girdte í kríngum hann, og gróf í hønum vínpressu, og uppbygde turn, og leigde hann sídann víngardsmønnum; og ferdadest utanlands.

34. Enn þegar ávaxtartímenn kom, sende hann sína þióna til víngardsmannanna, at þeir medtæku hans ávøxtu.

35. Þá tóku víngardsmennerner hans þióna: þann eina strýktu þeir, annann aflífudu þeir, hinn þridia grýttu þeir.

36. Í annad sinn sende hann adra Þióna út, sem fleyre voru hinum fyrrum, og þeim gerdu þeir slíkt hid sama.

37. Þar efter sende hann son sinn til þeirra og sagde: Þeir munu feila sér fyrer syne mínum.

38. Enn er víngardsmennerner sáu sonenn, sögdu þeir hver til annars: Þesse er erfingenn, komed þer, og áslíum ver hann; og leggium ver under oss hans arfleyfd.

39. Og þeir gripu hann, og ráku hann út af víngardenum, og aflífudu hann.

40. Enn nær herrann víngardsins kemur, hvad mun hann gera vid þessa víngardsmenn?

41. Þeir sögdu til hans: Þeim vondum mun hann vandlega fyrerfara, og sinn víngard byggia ödrum víngardsmönnum, þeir sem hönum ávöxt gialldi í réttann tíma.

42. Jesus sagde til þeirra: Hafed þer alldrei lesid í ritningunne: Þann stein, sem byggendur höfdu útkastad; hann er ordenn at hyrningar steine. Af drottne er þad gert, og er undarlegt fyrer vorum augum.

43. Fyrer því seige eg ydur: at Guds ríke mun frá ydur takast, og heiding um gefid verda, þeir sem þaraf ávöxt færa.

44. Enn hver yfer þennann stein fellur, hann mun sundur myliast: enn yfer hvern hann fellur, þann mun hann sundur meria.

45. Og þá þeir yppurstu prestar og Pharísei heyrdu hans efterlíkingar, formerktu þeir, þad hann talade um þá.

46. Og leitudu vid at grípa hann, enn ottudust þó fólkid, því að þád hellt hann fyrer spámann.

## 22. Capitule.

1. Og Jesus svarade og talade í annad sinn í efterlíkingum til þeirra, og sagde:

2. Himnaríke er líkt þeim konunge, sem brudkaup gerde syne sínum.

3. Og sende út sína þióna at kalla bodsmennena til brúdkaupsins, og þeir villdu eige koma.

4. Í annad sinn sende hann adra þióna út, og sagde: Seiged bodsmönnunum: siáed! Mína máltíd hefe eg tilbúid; míner uxar og alid fe eru slátrader, og allt er til reidubúid: komid til brúdkaupsins.

5. Enn þeir forsmádu þad, og geingu í burt, einn á sinn akur, enn annar til sinnar sýslunar.

6. Enn nockrer gripu hans þióna, dárudu þá og drápu.

7. Enn þá konungurenn heyrde þad, vard hann reidur, og sende út sinn her, og fyrerfór þessum mordingium, og brennde borg þeirra.

8. Þá sagde hann til sinna þióna: Brúdkaupid er at sönnu reidubúid, enn gesterner voru þess eigi verduger.

9. Fyrer því fared út á strætinn, og bióded til brúdkaupsins hverium sem þer finned.

10. Og þiónarner geingu út á strætenn og samannsöfnudu öllum þeim þeir fundu, vondum og gódum, og bordenn urdu alskipud.

11. Þá geck konungurinn inn at siá gestena: og hann sá þar mann, eigi klæddann brúdkaups klædum.

12. Og sagde til hans: Vinúr! hvernenn geckst þú inn híngad, hafande ecki brúdkaups klæde?

13. Enn hann þagde. Konungurinn sagde þá til sinna þenara: Bindid hans hendur og fætur, og varpid hønum í ytstu myrkur, þar mun vera óp og tannagnistran.

14. Þvíad marger eru kallader; enn fáer útvallder.

15. Þá geingu Pharisei burt, og helldu rád: hvernenn þeir skylldu veida hann í ordum.

16. Og sendu til hans sína lærisveina med Herodis þenurum, og søgdu: Meistare! ver vitum, at þú ert sannsøgull og kenner Guds veg rettelega, og skeyter eigi nockrum, þvíad þú ser eigi at mannvirdingum.

17. Fyrer þvi seig oss: hvad þer lytst: er þad rett at gefa keisaranum skatt, edur eigi?

18. Enn þá Jesus formerkte þeirra sláræde, sagde hann: Hvad freisted þer mín hræsnarar?

19. Syned mer myntina skattsins; og þeir feingu hønum einn pening.

20. Og hann sagde til þeirra: Hvers er þesse mind og yferskrift?

21. Þeir søgdu hønum: Keisarans. Þá sagde hann til þeirra: Gefid þá keisaranum hvad keisarans er, og þad Gudi sem Guds er.

22. Og er þeir heyrdu þad; undrudust þeir, forletu hann og geingu í burt.

23. A þeim sama deige geingu Saducei til hans: hverer hallda upprisuna eigi at vera, og spurdu hann at.

24. Og søgdu: Meistare! Moyses hefir sagt: þá nockur andadest, og hefde ecki barn efter, þá skyllde hans bróder eiga hans eigennkonu, og uppvekia sínum brodur sæde.

25. Enn hiá oss voru siø brædur: hinn fyrste fastnade ser konu, og hann andadest, og af þvi hann hafde ecke sád; efter let hann bródur sínum sína eigennkonu.

26. Líka sá annar, og hinn þridi, allt til siøunda.

27. Enn sídast efter alla þá andadest og konan.

28. Hvers þeirra siø verdur hún nú eignarkona í upprisunne? þvíad aller þeir hafa hana haft.

29. Enn Jesus svarade og sagde til þeirra: þer villest, og vited eige ritningarnar, ne helldur Guds kraft.

30. Þvíad í upprisunne munu þeir hverki kvongast ne sig kvonga láta, helldur eru þeir sem einglar Guds á himne.

31. Enn hafed þer lesed af upprisu framlidenna, hvad af Gude er ydur sagt, er hann seiger:

32. Eg em Gud Abrahams, og Gud Isaks, og Gud Jacobs, enn Gud er eigi Gud daudra, heldur lifande manna.

33. Og er fólkid heyrde þetta: undradest þad hans kenning.

34. Enn þegar Pharisei heyrdu, at hann hafde þaggad Saduceos, søfnudust þeir samann.

35. Og einn løgvitringur medal þeirra, freistade hans og sagde.

36. Meistare! hvert er hidhædsta bodord í løgmalenu? Enn Jesus sagde til hans:

37. Elska skalt þú Drotten Gud þinn, af ollu hiarta, af allre sálu, og af ollu hugskote.

38. Þetta r hid hellsta og mesta bodord.

39. Enn annad er þessu líkt: Elska skal þú náúnga þinn sem siálfann þig.

40. I þessum tveimur bodordum

heinger allt lágmál og spámenner.

41. Enn þegar Pharisei voru nú til samans: spurdi Jesus þá at,

42. Og sagde: Hvad virdest ydur um Christum; hvers sonur hann se? Þeir sogdu Davids.

43. Hann sagde til þeirra: Hverninn kallar David hann þá í anda einn drottenn? Er hann seiger.

44. Drottenn sagde mínum drottne: Sit þú til minnar hægre handar, þar til eg legg óvine þina til skarar þinna fóta.

45. Nú ef David kallar hann drottenn, hvernenn er hann þá hans sonur?

46. Og eingenn gat honum einu orde svarad, og eigi dyrfdest nockur upptrá þeim deige, hann framar at spyria.

## 23. Capitule.

1. Þá talade Jesus til fólksins, og til sinna læresveina.

2. Og sagde: A Mosis stóle sitia skriftlærder og Pharisei.

3. Allt, hvad þeir seigia ydur: atþer skulud hallda, þad halldid og gerid, enn efter þeirra verkum skulud þer eigi gera; Þvíad þeir seigia þad, og gera eigi.

4. Þeir samanbinda þúngar byrder og óbærelegar, og leggia þær monnum á herdar, enn siálfer vilia þeir eigi áhræra þær fingre sínum.

5. Þvíad oll sín verk gera þeir, at þeir siáest af monnum. Sín minningarblod breidka þeir, og falld sinna klæda stæcka þeir.

6. Þeir sitia giarnann efst til bords, og í samkunduhúsum.

7. Og vilia giarnann kvediur á torgum, og af monnum, Rabbí kallader verda.

8. Enn þer skulud eigi láta kalla ydur Rabbi, þvíad einn er ydar meistare Christur, enn þer aller erud brædur.

9. Og engann skulud þer ydur kalla á jordu: Þvíad einn er ydar fader, sá sem á himnum er.

10. Og þer skulud eigi láta ydur meistara kalla, því einn er ydar meistare Christur.

11. Sá sem mestur er ydra, se hann ydar Þenare.

12. Því hver sialfann sig upphefur, sá mun nidurlægast; og hver siálfann sig nidurlæger, hann mun upphafenn verda.

13. Ve ydur skriftlærdum og Phariseis, þer Hræsnarar, hverer afturloked himnariket fyrer monnum; eigi gánged þer, þár inn, og þeim er þar inn vilia gánga, þá loked þer, eigi þar inn.

14. Ve ydur skriftlærdum og Phariseis, þer hræsnarar, hverer ecktna hús uppeted med yferhylmingu langra bæna: fyrer þad munud þer þeis meire fordæming odlast.

15. Ve ydur skriftlærdum og Phariseis, þer hræsnarar, hverer umkring fared sió og lond, svo at þer gered einn at Gydynge: og nær hann er þad ordenn, gered þer hann at barne helvítis, tvofallde meir enn þer erud.

16. Ve ydur blindum leidtogurum, þer sem seiged: hver hann sver vid musterid, þad er ecki, enn Hver hann sver vid gull musteresins, sá er sekur.

17. Þer heimsker og blinder. Hvert er meira gullid eda musterid, hvert er helgar gullid?

18. Og hver sem sver vid

alltarid, þad er ecki, enn hver hann sver vid þad offur sem á hvi er; sá er sekur.

19. Þer heimsker og blinder: hvert er meira offrid edur alltarid, þad sem offrid helgar?

20. Fyrer þvi; hver hann sver vid alltared, sá sver vid þad sama, og vid allt hvad þar er uppá.

21. Og hver hann sver vid mustered, sá sver vid þad, og vid þann sem þar bygger (inne.

22. Og hver hann sver vid himenenn, sá sver vid Guds sæte, og vid þann sem þar uppá situr.

23. Ve ydur skriftlærdum og Phariseis, þer hræsnarar! hverer tiundid myntu, aneth og kumen, og yfergefid þad, hvad þyngst er i lögmálenu, einkum dóminn, miskunsemie, og trúna: þetta byriade at gera, og hitt eigi efter at skilia.

24. Þer blinder leidtogar, sem syed mýflugunna, enn svelged úlfballdann.

25. Ve ydur skriftlærdum og Phariseis, þer hræsnarar, sem hreinum hallded hid ytra bikurum og diskum, enn innann eru þeir fuller ráns og óhófseme.

26. Þú blindur Phariseare! hreinsa fyrst hid innra á bikurum og diskum, svó at hid ytra verde og hreint.

27. Ve ydur skriftlærdum og Phariseis, þer hræsnarar! hverer liker erud forfágudum leidum frammlidinna, hver utann synast fögur, enn innann eru þaug full af daudra manna beinum, og allre óþeckt.

28. Svo erud og þer; hid ytra syneft þer at vera góder fyrer mönnum, enn hid innra erud þer fuller hræsnar og ódygde.

29. Ve ydur skriftlærdum og Phariseis, þer hræsnarar! hverer uppbygged spámanna leide, og pryded grafer rettlátra manna.

30. Og seiged: Ef ver hefdum verid á dögum fedra vorra: skylldum ver eigi verid hafa hluttekendur med þeim i blóde spámannanna?

31. Svo bered þer siálfer ydur vitne, at þer erud þeirra börn, sem spámennena aflifudu.

32. Nú vel! Uppfylled mæling fedra ydvarra.

33. Þer eiturormar! þer nödrukin! hvernenn vilid þer umflya helvítiska fyrerdæming?

34. Fyrer því siáed! eg sende til ydur spámenn, spekinga, og skriftlærda menn, og nockora af þeim munud þer aflifa og krossfesta, og suma munud þer húdstrykia i samkunduhúsum ydrum, og af annare borg i adra munud þer þá offsækia.

35. Svo at yfer ydur komi allt rettlátt blód, sem á jordu út er hellt, frá blóde Abels hins rettláta, allt til blóds Zachariæ, sonar Barachiæ, hvern þer drápud mille musteris og alltarisins.

36. Sannlega seige eg ydur: at allt þetta mun koma yfer þessa kynslód.

37. Jerusalem! Jerusalem! þú sem aflífar spámennena, og gryter þá, sem til þín eru sender. Hversu oft hefi eg vilad samannsafna börnum þinum, líka sem hænann safnar úngum sínum under vænge ser; og þer hafid ecki vilad?

38. Siáed! ydart hús skal ydur i eyde látid verda.

39. Því at eg seige ydur; þer munud eigi siá mig upp frá þessu, þar til þer seigid: Lofadur se sá, sem kemur i nafni drottins.

## 24. Capitule.

1. Og Jesus geck útaf musterinu, og hans læresveinar geingu til hans, at þeir synde hønum bygging musterisins.

2 Enn Jesus sagde til þeirra: Siáed þer eigi allt þetta? Sannlega seige eg ydur; at þar mun ecki vera steinn yfer steine, sá er eigi mun nidurbrotinn verda.

3. Enn sem hann sat á fiallenu Oliveti; geingu hans læresveinar til hans einslega, eg søgdu: Seig oss, hvenær þetta mune ske, og hvert teikn er þinnar tilkomu, og veralldarennar enda?

4. Enn Jesus svarade og sagde til þeirra: Siáed til, at eingenn ville ydur.

5. Þvíat marger munu koma under mínu nafne, og seigia: Eg em christur, og þeir munu marga villa.

6. Þer munud heyra bardaga og bardagatídende: siáed til, at þer skelfest eigi, þvíad allt þetta hlytur fyrst at ske, þó er þá eigi ende komenn.

7. Þvíat þar mun ein þióð hefia sig upp í móte annare, og eitt konungsríke í móte ødru, og þar munu vera drepsótter og dyrtíd, og jardskialftar ølluneigenn.

8. Þá munu hid fyrsta harmkvælingarnar byriast.

9. Þá munu þeir ofurselia ydur í hardkvæle, og ydur munu þeir lífe firra, og þer verded hatader af øllum þióðum fyrer míns nafns saker.

10. Og þá munu marger hneixlast, og ínnbyrdis hver annann svíkia, og hver annann ínnbyrdis hata.

11. Og marger fals-spámenn munu sig þá upphefia, og marga afvega leida.

12. Og af því at rángløted mun yfergnæfa; mun kærleikur margra kólna.

13. Enn hver sem stadfastur blífur allt til enda, sá mun hólpenn verda.

14. Og evangelium ríkesins mun predikad verda um allann heim, til vitnisburdar yfer allar þióder, og þá mun endinn koma.

15. Nær þer siáed nú svívirding eydeleggingarennar, af hverre sagt er fyrer spámannenn Daniel, at hún stendur í þeim heilaga stad: hver þad les hann hugge þar at.

16. Hver þá er á Gydingalande, flye sá uppá fiøll.

17. Og hver hann er á ræfre, fare sá eigi ofann, nockud at taka úr sínu húsi.

18. Og sá sem á akre er, snúe hann eigi aftur at sækia klæde sín.

19. Ve þúngudum og þeim sem hafa børn á brióste á þeim tíma.

20. Biðed at ydar flótte ske eigi um vetur, edur á sabbaths deige.

21. Þvíat þá mun verda svo stór hørmung, hvílíkat eigi var í fráupphafi veralldar, allt til þessa, og eigi helldur verda mun.

22. Og nema þad, at þesser dagar sen styttir, verdur eingenn madur hólpenn, enn fyrer utvaldra saker, þá skulu þeir dagar styttast.

23. Enn ef nockur seiger þá til ydar, siáed: her er christur, þar, edur þar, þá skulud þer eigi því trúa.

24. Þvíat upp munu rísa falschristar, og falsspámenn, og þeir munu gera stór tákn og undur, svo at í villu munu leidast, ef ske mætte, einnen útvalder.

25. Siáed, eg seige ydur þadt fyrer.

26. Þar fyrer, nær þeir seigja til ydar: Siáed, hann er á eydemørku; þá ganged eigi út. Siáed, hann er í herberge, þá trúed ecki.

27. Þvíad svo sem eldingin útgeingur af austre, og skín allt til vestnrs, líka svo mun vera tilkoma mannsins sonar.

28. Þvíat hvar hellst at hræed er, þángat safnast ernerner.

29. Enn strax efter hørmung þessara tíma, mun sól, sem tungl missa sitt skin, og stiørnur munu af himnum hrapa, og kraftar himnanna munu hræra sig.

30. Og þá mun teikn mannsins sonar birtast á himne. Og munu þá gráta allar kynkvísler jardar, og þeir munu siá mannsins son komande í skyum himens, med krafte miklum, og dyrd.

31. Og sína eingla mun hann útsenda, med basunu og stórre raust, og hans útvøldum munu þeir saman safna af fiórum vindum, frá einne endingu himens til annarar.

32. Af fíkiutreun læred eina efterlíking. Nær þess kvister geraft friós, og laufenn át spretta, þá vited þer; at sumared er í nánd.

33. Líka svo: nær þer sáed allt þetta, þá vited, at þad er nærre fyrer dyrum.

34. Sannlega seige eg ydur: at þesse kynslód mun ecki forgánga, þar til allt þetta sker.

35. Himen og jørd munu forgánga, enn mín ord munu eigi forgánga.

36. Enn af þeim deige og stundu veit engi, og eigi einglar á himnum, nema minn fader einn saman.

37. Enn líka sem var um daga Noe; svo mun og verda tilkoma mannsins sonar.

38. Því svo sem þeir voru á þeim døgum fyrer flóded, at þeir átu, þeir drucku, þeir giftust og letu gifta sig, allt til þess dags, á hverium Noe geck í ørkena.

39. Og þeir sætu því eigi; þar til flóded kom og tók þá alla burt. Svo mun og vera í tilkomu mannsins sonar.

40. Þá munu tveir á akre vera, og mun einn upptekenn, enn annar forlátenn verda.

41. Tvær munu í einn kvernhúse malande vera, og mun ein upptekenn, og sunnr forláten verda.

42. Fyrer því vaked, þvíat þer vited eigi, á hverre stundu ydir Herra munu koma.

43. Enn þad skulud þer vita, at ef húsfaderenn visse á hverre stundu þiófurinn kæme, munde hann vaka, og láta eigi sitt hús í sundurgrafa.

44. Fyrer því vered þer og reidubúner; þvíat mannsins sonur mun koma, á þeirre stundu, þer meined eigi.

45. Enn hvér hann er trúr þiónn og forsiáll, sem herrann hefir sett yfer sín hiú, at hann gefe þeim fædu í rettann tíma.

46. Sæll er sá þiónn, nær hans herra kemur, og finnur hann svo geranda.

47. Sannlega seige eg ydur: at hann mun setia hann yfer øll sín audæfe.

48. Enn ef einn af þeim vondu þiónum seiger í sínu hiarta: Minn herra dvelur enn ad leinge at koma.

49. Og tekur at slá sína samlagsþióna, etur og dreckur med drykkiurútum.

50. Þá kemur Herra þess þjóns, á þeim deige, sem hann vonar eigi, og á þeirre stundu, er hann grunar eigi.

51. Og mun í sundurparta hann, og mun gefa hønum laun med hræsnurum. Þar mun vera óp og tannagnistran.

## 25. Capitule.

1. Þá mun himnaríke líkt vera tíu meyum, hverar tóku sína lampa, og geingu út móte brúdgumanum.

2. Enn fimm af þeim voru fávísar, og fimm forsjálar.

3. Þær sem fávísar voru, tóku sína lampa, en tóku þó ecki vidsmør med ser.

4. Enn hinar forsjálu tóku í sínum kerum vidsmør, med lømpunum.

5. Og er brúdgumenn gerde dvøl á at koma, sifjade þær allar, og þær sofnudu.

6. Enn um midnætte kom kall: Sjáed! brúdgumenn kemur; gángeð þer út í móte hønum!

7. Þá stódu upp allar þessar meyar, og prýddu sína lampa.

8. Enn þær fávísu søgdu til hinna forsjálu: Gefid oss af vidsmøre ydru; þvíat vorer lampar slockna út.

9. Hinar forsjálu svørudu og søgdu: Eigi svo; má vera at eigi se nóg fyrer oss og svo ydur: fared þer helldur til sølumanna og kaupeð ydur sjálfar.

10. Enn er þær geingu at kaupa, kom brúdgumenn, og þær sem reidubúnar voru, geingu med hønum til brúdkaupsins, og hurdenne var afturlókad.

11. At sídustu komu og hinar adrar meyar, og søgdu: Herra! Herra! lúk þú upp fyrer oss.

12. Enn hann svarade og sagde: Sannlega seige eg ydur: at eg þecke ydur eigi.

13. Fyrer því vakid, þvíat þer vitid eigi þann dag ne stund, á hverre mannsins sonur mun koma.

14. Líka sem sá madur, er ferdadest utanlands, kallade sína þjóna, og feck þeim sitt góds.

15. Og einum feck hann fimm pund, enn ødrum tvø, hinum þridia eitt, hverum einum eftir sínum mætte, og ferdadest strax af stad.

16. Þá geck sá til, sem fimm pund hafde medtekid, og kaupslagade med þeim sømu, og vann þar med ønnur fimm pund.

17. Líka einnenn sá sem tvø pund hafde medtekeð, ávann og ønnur tvø.

18. Enn sá eitt pund hafde medtekid, fór burt, gróf þad í jørdu, og falde þar síns herra fe.

19. Enn efter lángann tíma lidinn, kom herrann þessara þjóna, og hellt reikningskap vid þá.

20. Þá geck sá til, sem fimm pund hafde medtekid, og lagde ønnur fimm pund þar til, og sagde: Herra! fimm pund feckstu mer, sjá! ønnur fimm hefe eg á unnid.

21. Hans herra sagde hønum: Vel! Þú góde og trúlynde þjónn! Þú hefir verid trúr yfer litlu, eg vil setia þig yfer mikid: gack inn í þíns herra fagnad.

22. Þá geck og sá at, sem tvø pund hafde medtekid, og sagde: Herra: tvø pund feckstu mer; sjá! ønnur tvø pund hefe eg med þeim áunnid.

23. Hans herra sagde til hans:

Vel! Þú hinn góde þiónn, og trúlynde! Þú varst trúr yfer litlu: eg vil setia þig yfer mikid; gack inn í þíns herra føgnud.

24. Þá geck sá, sem eitt pund hafde medtekid, og sagde: Herra, eg veit at þú ert hardur madur, þú uppsker, hvar þú sáder ecki; og samansafnar, hvar þú dreifder ecki.

25. Og óttásleigenn fór eg burt og falde pund þitt í jørdu. Siá! Þar hefir þú þád, hvad þitt er.

26. Enn hans herra svarade og sagde til hans: Þú vondi þiónn, og lati! Visser þú at eg sker upp, hvar eg sáde ecki, og samansafna, hvar eg dreifde ecki?

27. Því byriade þer at fá minn pening veslunarmønnum, og nær eg kæme, hefde eg, hvad mitt er, til mín teked med abata.

28. Fyrer því taked af hønum þad pund, og gefed hønum sem tíu pund hefir.

29. Þvíat hver hann hefir, hønum mun gefed verda, og mun hann nægd hafa: enn hver ecki hefir, frá þeim mun teked verda og þad hann hefir.

30. Og þeim ónyta þión kasted þer í hin ytstu myrkur:, þar mun vera óp og tannaguistran.

31. Enn þá mannsins sonur mun koma í sinne dyrd, og allar heilagar einglar med hønum, þá mun hann sitia í sæte sinnar dyrdar.

32. Og allar þióder munu saman safnast fyrer hønum, og hann mun þá sundurskilia hvería frá ødrum, svo sem hyrder sundurgreiner saude frá kidum.

33. Og saudunum mun hann skipa til sinnar hægre handar, enn kidunnum til vinstre.

34. Þá mun konúngurinn seigia til þeirra sem á hægre hønd eru: Komed her þer blessader fødurmíns, og eignist þad ríke, sem ydur var tilbúid frá upphafe verialldar.

35. Þvíad húngradur var eg, og þer gáfud mer at eta; þyrstur var eg, og þer gáfud mer at drecka; Gestur var eg, og þer hystud mig.

36. Nakenn var eg, og þer klæddud mig. Siúkur var eg, og þer vitiudud mín. J myrkrastofu var eg, og þer komud til mín.

37. Þá munu hiner rettlátu og svara og seigia: Herra! hvenær sáum ver þig húngradann, og mettudum þig? Eda þyrstann og gáfum þer at drecka?

38. Eda hvenær sáum ver þig gestkomenn, og hystum þig? Eda nakenn, og klæddum þig?

39. Eda hvenær sáum ver þig siúkan, eda í myrkrastofu, og komum til þín?

40. Og konúngurenn mun svara og seigia til þeirra: Sannlega seige eg ydur; hvad þer gerdud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gerdud þer mer.

41. Þá mun hann og seigia til þeirra, sem til vinstre handar eru: Fared burt frá mer þer bølvader, í eylífann elld, þann sem fyrer búinn er fiandanum og hans árum.

42. Húngradur var eg, og þer gáfud mer ecki at eta. Þyrstur var eg, og þer gáfud mer ecki at drecka.

43. Gestur var eg, og þer hystud mig ecki. Nakenn var eg, og þer klæddud mig eigi. Siúkur og í myrkastofu var eg, og þer vitiudud mín eigi.

44. Þá munu þeir svara hønum og seigia: Herra! hvenær sáum

ver þig húngradann, þyrstann, eda gest, eda nakenn, siúkann eda í myrkrastofu, og høfum þer eigi þiónad?

45. Þá mun hann svara þeim og seigia: Sannlega seige eg ydur: hvad þer gerdud eigi einum af þessum enum minnstu, þad gerdud þer mer eigi. Og munu þeir gánga í eylífar pýslar, enn rettláter í eylíft líf.

## 26. Capitule.

1. Og þad skede, þá Jesus hafde lycktad alla þessa rædu, sagde hann til sinna læresveina.

2. Þer vitid, at efter tvo daga eru Páskar, og mannsinssonur mun ofurseliast, at hann krossfestur verde.

3. Þá søfnudust samann þeir ædstu prestar, og skriftlærder, og ølldungar lydsins í høll kennemannahøfdingia, þess er Caiphas het.

4. Og helldu rád, hvernenn þeir gætu med slægd gripid Jesum, og líflátid hann.

5. Enn þeir søgdu: Eigi á hátídardeige, svo at eigi verde upphlaup med fólkenu.

6. Enn þá Jesus var nú í Bethania, í húsi Simonis hins spitelska.

7. Geck ein kona at hønum, hafande eitt glas dyrdligs smyrslavatns, og hún hellti þvi yfer høfud hønum, þar hann sat vid bordid.

8. Enn er þad sáu hans læresveinar, þyckiust þeir vid, og søgdu: Til hvers er þesse spilling?

9. Þetta vatn hefde mátt seliast fyrer miked, og gefast fátækum.

10. Enn þá Jesus fornam þad, sagde hann til þeirra: Hvad erud þer ysuer vid þessa konu? þvi godt verk gerde hún á mer.

11. Fátæka hafed þer iafnann hiá ydur, enn mig hafed þer eigi alla tíma.

12. Þat hún hellte sínu smyrslavatne yfer minn líkama, þad gerde hún, at eg yrde greftradur.

13. Sannlega seige eg ydur; hvar þetta evangelium prédikad verdur í øllum heime, mun sagt verda, í hennar minning: hvad hún hefir gert.

14. Þá geck burt einn af þeim tólf, sá er Judas Iscarioth het, til kennemannahøfdinganna.

15. Og sagde: Hvad viled þer gefa mer, ef eg vil selia ydur hann? Enn þeir budu hønum þriátíu silfurpeninga.

16. Þadann í frá leitade hann lags at svíkia hann.

17. Enn á fyrsta sætabrauds deige geingu læresveinarner til Jesum, og søgdu til hans: Hvar villtu iat ver tilreidum þer páskalambid at eta?

18. Hann sagde: Fared þer í borgena til nockurs, og seiged hønum: Meistarenn lætur seigia þer: Minn tíme er í nánd; hiá þer vil eg páska hallda med læresveinum mínum.

19. Og læresveinarner gerdu svo sem Jesus hafde þeim bodid, og reiddu til páskalambid.

20. Enn at kvølldi komnu, sette hann sig til bords med þeim tólf.

21. Og er þeir átu, sagde hann: Sannlega seige eg ydur, at einn ydar mun svíkia mig.

22. Og þeir hryggdust miøg vid, og hver einn þeirra sagde til hans: Em eg þad nockud Herra?

23. Enn hann svarade og sagde:

Sá sem hendenne drepur í fatid med mer, sá mun mig forráda.

24. Mannsins sonur mun at sönnu fara, svo sem skrifad er af hönum, enn þó ve þeim manne fyrer hvern mannsins sonur verdur svikinn: betra være þeim sama manne, hann hefde alldrei fæddur verid.

25. Þá svarade Júdas, sá er forred hann og sagde: Em eg þad nockud Rabbi? Hann sagde til hans: Þú sagder þad.

26. Og þá þeir neyttu, tók Jesus braudid, gerde þacker og braut þad, gaf þad læresveinunum og sagde: Taked og eted, þad er minn líkame.

27. Og hann tók kaleikenn, gerde þacker: gaf þeim hann og sagde: Drecked aller þar af.

28. Þad er mitt blód, þess nya testamentis, hvert sem úthellist fyrer marga, til syndanna fyrergefningar.

29. Enn eg seige ydur: at eg mun eigi hedann í frá drecka af þessum vínvidar ávexte, allt til þess dags, sem eg mun drecka þad nytt med ydur í míns födurs ríke.

30. Og at loffsaungnum sungnum, geingu þeir til fiallsins oliveti.

31. Þá sagde Jesus til þeirra: á þessare nóttu munud þer aller hneixlast á mer, þvíat skrifad er: Hirdirinn mun eg slá, og sauder hiardarennar munu í sundurtvístrast.

32. Enn efter þad, at eg em upprisenn, mun eg gánga fyrer ydur í Galilea.

33. Petur svarade og sagde til hans: Og þó aller hneixlest á þer, þá skal eg þó alldrei hneixlast.

34. Jesus sagde til hans: Sannlega seige eg þer: at á þessare nóttu, ádur enn haninn galar, muntu afneita mer þrisvar.

35. Petur sagde til hans: einninn þó mer byriade med þer at deya, skyllde eg eigi neyta þer. Slíkt hid sama sögdu og aller læresveinarner.

36. Jesus kom þá med þeim, í þad gerdistún sem kalladest Gethsemane, og sagde til sinna læresveina: Sited her á medann eg fer þángad og bidst fyrer.

37. Og hann tók med ser Petrum og þá tvo sonu Zebedei, og tók þá til at hryggiast, og titra.

38. Jesus sagde til þeirra: Hrygg er sála mín allt til danda, blífed her og vakid med mer.

39. Og hann geck litlu eina frammleingra, fell framm á sína ásiónu bidiande, og sagde: Fader minn! ef mögulegt er, þá líde af mer kaleikur þessi; þó ecki svo sem eg vil, helldur svo sem þú vilit.

40. Og hann kom til sinna læresveina, og fann þá sofande, og sagde til Peturs: Hvert gátud þer eigi eina stund vakad med mer?

41. Vaked þer og bided, svo at þer falled eigi í freistne: andenn er fús, enn holldid er breiskt.

42. Í annad sinn geck hann aftur burt, bad og sagde: Fader minn, se þad eigi mögulegt at þesse kaleikur líde frá mer, utann eg drecke hann, þá verde þinn vili!

43. Og hann kom og fann þá aftur sofande, því þeirra augu voru full af svefne.

44. Og hann let þá kyrra, og geck í burt aftur, og bad í þridia sinn, og talade þau sömu ord.

45. Þá kom hann til sinna lære-

Sveina, og sagde til þeirra. Æ! Wilid þer nú sofa og hvílaſt; ſiáed! ſá ſtund tekur at nálgaſt, at manns ſins sonur mun ofurſeliaſt í ſyndugra hendur.

46. Standed upp, og forum ver. Siáed! þar er ſá, mig forrædur.

47. Og sem hann var nú enn at tala; ſiá! þá kem Judas, einn af þeim tólf, og med honum ſlockur mikell med ſverdum og ſtǫngum, útſendur af kennemanna hǫfdingium, og ǫlldungum lydſins.

48. Enn ſá sem hann forred, gaf þeim teikn og ſagde: Hvern helſt sem eg kyſſe, ſá er þad; gríp id hann.

49. Og jafnſnart geck hann at Jeſu og ſagde: Heill ſe þu Rabbi; Og kyſſte hann.

50. Enn Jeſus ſagde til hans: Winur! Hvar til komſtþu hingad? Þá geingu þeir þángad, og lǫgdu hendur á Jeſum og gripu hann.

51. Og ſiá, at einn útaf þeim, sem med Jeſu voru, rette út hǫndena, ricte ſínu ſverde, ſló þión kennemanna hǫfdingians, og hió af hans eyra.

52. Þá ſagde Jeſus til hans: Stickþu þínn ſverde aftur í ſinn ſtad. Þvíad hver sem ſverded tekur, hann mun fyrer ſverde faraſt.

53. Eda meinar þú, at eg kunne eigi at bidia minn fǫdur, at hann ſkicke mer meir enn tólf legioner eingla?

54. Eda hvernenn uppfyllaſt þá ritningarnar? Svo byriar at allt ſkule ſke.

55. Á þeim tíma ſagde Jeſus til flockſins: Þer erud útgeingner, líka sem til annars rænıngia, med ſverdum og ſtǫngum at hondla mig. Daglega hefe eg þó hiá ydur ſetid, og kendt í muſterenu, og þer hafid mig eigi gripid.

56. Enn alt þetta er ſked, ſvo at uppfylldnſt ritningar ſpámannanna. Þá forletu hann aller lærefveinarner og flydu:

57. Enn þeir sem Jeſum hǫfdu gripid, leiddu hann til Caiphas þeſs ypparſta preſts, hvar ſkriftlærder og ǫlldungar voru ſamankomner.

58. Enn Petur fylgde hǫnum efter áleingdar, allt í ſalenn kennemannahǫfdingians, og geck inn: ſette ſig hiá þénurnnum, ſvo at hann ſæe, hver ender þar á yrde.

59. Enn þeir ædſtu preſtar, og ǫlldungar og allt ráded, leitudu lıúgvitna gegn Jeſu, ſvo at þeir gætu deydt hann.

60. Og fundu eingenn. Og þó at mǫrg falsvitne geingu framm at, þá fundu þeir ecki. Enn at ſídustu geingu tveir fals-vottar framm,

61. Og ſǫgdu: Hann heſir ſagt: Eg get nidurbrotid muſtere Guds, og efter þría daga þad upp aftur byggt.

62. Sá ædſte preſtur ſtód þá upp og ſagde til hans: Svarar þú anngu til þeſſa, sem þeſſer vitna móte þer?

63. Enn Jeſus þagde. Sá ædſte preſtur anſade og ſagde til hans: Eg ſære þig fyrer lifande Gudi, at þú ſeiger oſſ, ef þú ert Chriſtur sonur Guds.

64. Jeſus ſagde: Þú ſeiger þad, þó ſeige eg ydur: her efter mun þad ſke, at þer munud ſiá mannsins ſon ſitia til hægre handar kraftarins, og komande i ſkyum himens.

65. Þá reif kennemannahǫfd-

ingenn sin klæde og sagde: Hann gudlastar, hvad þurfum ver vitnanna vid? Siá! þer heyrdud nú siálfer hans gudlastan

66. Hvad virdest ydur? Þeir svorudu og sǫgdu: Hann er daudans sekur.

67. Þá spyttu þeir í hans ásiónu, og bǫrdu hann med knefum, en adrer slóu hann i hans andlit.

68. Og sǫgdu: Spá þú oss Christe! hver er sá, sem þig sló?

69. Enn Petur sat þar utann fyrer í salnum, og ambátt ein geck at hǫnum, og sagde: og þú varst med Jesu af Galilea.

70. Enn hann neytade fyrer ǫllum, og sagde: Eg veit eigi hvad þú seiger.

71. Enn sem hann geck út um dyrnar, leit hann ein ǫnnur, og sagde til þeirra, sem þar voru: Þesse var og med Jesu af Nazareth.

72. Og í annad sinn neytade hann aftur med eyde, og sagde: Eigi þecke eg þann mann.

73. Og innan skams geingu þeir út, sem þar stódu, og sǫgdu til Peturs: At sǫnnu ert þú einn af þeim, þvíat þitt mál openberar þig.

74. Þá tok hann til at formæla ser og sveria: Eigi þecke eg þann mann. Og jafnsnart gól hanenn.

75. Þá minntist Petur orda Jesu, er hann sagdi til hans: ádur enn hanenn galar, muntu afneita mer þrisvar. og hann geck út og gret beisklega.

## 27. Capitule.

1. Enn at morgne helldu aller ædstu prestar og ǫldungar lydsins rád móte Jesu, svo at þeir gætu hann líflátid.

2. Og þeir bundu hann og leiddu í burt, og afhendtu hann landshǫfdingiannm Pontio Pilato.

3. Þá er Judas, hver hann hafde forráded, sá þad, at hann var til dauda dæmdur, idradest hann þess, og færde aftur þeim ædstu prestum og ǫlldungum þá þriátigu silfurpeninga.

4. Og sagde: Illa gerdi eg, at eg forred saklaust blód. Enn þeir sǫgdu: Hvad kemur þad vid oss? Siá þú þar fyrer.

5. Og hann snarade þeim silfurpeningum í musterid, skundade þadann, geck burt, og heingde siálfann sig.

6. Enn þeir ædstu prestar tóku silfurpeningana og sǫgdu: Eigi bæfer, at ver látum þá í Guds kistuna, þvíat þad er blóds peningur.

7. Enn þeir helldu eitt rád, og keyptu med þeim einn leirsmids akur, vegfarendum til greftrunar.

8. Fyrer þad er sá akur kalladur blódsakur, allt til þessa dags.

9. Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrer Jeremiam spámann, seigiande: Þeir tóku þá þriátíu silfurpeninga, er hinn sellde var med vitaladur, hvern þeir keyptu af Israels bǫrnum.

10. Og hafa gefid þá fyrer leirkerasmidsakur, eftir því sem drottenn hafde mer bodid.

11. Enn Jesus stód framme fyrer landsdómaranum, og landsdomarenn spurde hann at, og sagde: Ert þú konungur Gydinga? Enn Jesus sagde til hans: Þú seiger þad.

12. Og sem hann áklagadest af

þeim ædstu prestum og ølldungum, svarade hann engu.

13. Þá sagde Pilatus til hans: Heyrer þú eigi, hversu hardlega þeir ásaka þig?

14. Og ecki svarade hann hønum til nockurs ords, svo at landsdómarenn undradest þad nærsta.

15. Enn á hátídardeigenum var landsdómarenn vanur fólkenn lausann at láta einn bandinga, hvern helst þeir villdu.

16. Enn þá hafde hann einn frábærann bandinga, framar ødrum, sá sem Barrabas het.

17. Sem þeir voru til samans komner, sagde Pilatus til þeirra: Hvern viled þer at eg skuli gefa ydur lausann, Barrabam eda Jesum. um hvern þat sagt er, at hann se Christur?

18. Þvíat hann vissi vel, at þeir høfdu fyrer haturs saker ofursellt hann.

19. Og sem hann sat á domstólnum, sende hans húsfrú til hans, og let seigia hønum: Haf þú ecki at gera med þennann rettláta, þvíat margt hefe eg lided í dag í draume fyrer hann.

20. Enn þeir ædstu prestar og ølldungar redu fólkenu, at þad skyllde bidia um Barrabam, enn Jesum skylldu þeir deyda.

21. Landsdómarenn svarade þá og sagde til þeirra: Hvern af þessum tveimur viled þer, at eg láte ydur lausann? Þeir søgdu Barrabam.

22. Pilatus sagde til þeirra: Hvad skal eg þá gera vid Jesum, af hverum sagt er, at hann se Christur? Þeir søgdu hønum allerlát hann krossfestast.

23. Enn landsdómarenn sagde: Hvad hefir hann þá illt gert? Enn þeir kølludu því meir, seigiande: Lát þú krossfesta hann!

24. Þá er Pilatus sá, at hann gat ecki atgert, hellur þad, at þar yrde enn meira upphlaup af, tók hann vatn, og þvode hendurnar fyrer fólkenu, og sagde: Saklaus em eg af blóde þess hins retláta: sjáed þer til.

25. Þá svarade allur lýdur og sagde: Hans blód komi yfer oss og yfer børn vor.

26. Þá gaf hann þeim Barrabam lausann; enn Jesum let hann húdstrykia og afhendte þeim hann, at hann krossfestest.

27. Þá tóku strídsmenn landsdómarans Jesum med ser inn í þínghúsid, og þeir søfnudu saman at hønum øllu lidenu.

28. Og afklæddu hann, og løgdu yfer hann eina purpurakápu.

29. Og flettudu kórónu af þyrnum, og settu hana uppá hans høfud, og reyr í hans hægre hønd, og beigdu kne fyrer hønum, spottudu hann og søgdu: Heill sert þu konungur Gydinga!

30 Og hræktu á hann, tóku reyrenn og børdu um høfud hønum.

31. Og efter þad þeir høfdu spottad hann, færdu þeir hann úr kápunne, og færdu hann í sinn klædnad, og leiddu hann út, at krossfesta hann.

32. Enn í því þeir geingu út, fundu þeir mann af Cyrene, Simonem at nafne: hønum þreingdu þeir til, at hann bære hans kross.

33. Og er þeir komu í þann stad, sem kallast Golgatha, hvad ed þýdest hausaskelia stadur.

34. Gáfu þeir hønum edik at drecka galle blandad; og er hann smackade þad, villde hann eigi drecka.

35. Enn sem þeir høfdu krossfest hann, skiftu þeir klædum hans, kastande þar um hlutkeste, svo at uppfylldest hvad sagt er fyrer spámanneh: Þeir skiftu med ser klædum mínum, og yfer mitt fat køstudu þeir hlutkeste.

36. Og þar sátu þeir og vardveittu hann

37. Og uppyfer hans høfdi festu þeir hans daudasøk skrifada á þennann hátt: Þesse er Jesus kounungur Gydinga.

38. Þar voru og krossfester med hønum tveir ræningiar, einn til hægre handar og einn til hinnar vinstre.

39. Enn þeir sem þar geingu hiá, hæddu hann, skakande høfud sín.

40. Og søgdu: Þú sem niduhrbrytur Guds musteri, og uppbyggier þad aftur á þremur døgum, hiálpa þú siálfum þer: ef þú ert Guds sonur, þá stíg ofann hingat af krossenum

41. Líka svo spottudu hann þeir ædstu prestar med skriftlærdum og ølldungum og søgdu:

42. Ødrum hefir hann hiálpad, ser siálfum getur hann eigi hiálpad: ef hann er konungur Israels, stíge hann nú ofann af krossenum, þá viliium ver trúa hønum.

43. Hann treyste gude; hann frelse hann nú, ef hann hefir lyst til hans: þvíat hann sagde: Eg em Guds sonur.

44. Líka einnenn hæddu hann ræningiar, þeir med hønum voru krossfester.

45. Og í frá siøttu stundu gerdist myrkur yfer allt landid til níundu stundar.

46. Og nærre níundu stundu kallade Jesus hárre røddu og sagdi: Eli, eli, lama sabacthani: þad er; Gud minn, Gud minn, hvar fyrer forlæt þú mig?

47. Enn nockorer af þeim, sem stódu þar, þá þeir heyrdu þad, søgdu þeir: Hann kallar á Eliam.

48. Og jafnsnart hlióp einn af þeim til, og tók niardarvøtt og fylliti af ediki, og setti hann ofaná reyrlegg, og gaf hønum at drecka.

49. Enn adrer søgdu: Bídid, látid siá til: hvert Elias kemur at hiálpa hønum.

50. Jesus kalladi up hátt í annad sinn, og gaf up andann.

51. Og siá, at tialldid musteresins sundurrifnade í tvo parta frá ofanverdu allt nidur í gegnum, og jørdenn skalf, og biørgenn klofnudu.

52. Og grafernar lukust upp, og marger líkamer heilagra risu upp, þeir sem sváfu.

53. Og geingu efter hans upprisu úr grøfunum, og komu í hina heiløgu borg, og auglystust þar mørgum.

54. Enn høfudsmadurenn, og þeir sem med hønum voru, at vardveita Jesum, þá þeir sáu jardskiálftann og þad, hvad þar skede, urdu þeir miøg óttaslegner, og søgdu: Sannlega var þesse Guds sonur.

55. Þar voru og margar konur, sem sáu þar uppá á leingdar, hverar Jesu høfdu efterfylgt af Galilea, og hønum høfdu þiónad.

56. Metal hverra var Maria Magdelena, og Maria móder Jacobi og Joses, og móder þeirra Zebedei sona.

57. At kvølld kom nockur madur ríkur af Arimathia, Joseph at nafne, hver og svo var einn af læresveinum Jesu.

58. Hann geck til Pilatum, og bad hann um líkamann Jesu. Þá skipade Pilatus, at hønum skyllde fást hann.

59. Og Joseph tók vid líkamanum, sveipade hann í hreinu lerefte.

60. Og lagde í sína eigenn nýu gröf, hvera hann hafde úthøggva látid í stein: og vellte at dyrum grafarennar, stórum steine, og geck burt.

61. Enn þar var Maria Magdalena og ønnur Maria: sitiande gegnt yfer frá grøfenne.

62. Og annan dag, þann sem efter atfángadagenn er, søfnudust samann þeir yppurstu prestar, og Pharisei ásamt, til Pilatum.

63. Og søgdu: Herra! ver minnumst á þad, at þesse svikare sagde, þá er hann lifde: Efter þriá daga mun eg upprísa.

64. Af því skipa þú, at forvara grøfena allt til hins þridia dags; svo at eigi kome hans læresveinar á nóttu og stele hønum burt, og seige fólkenu, at hann se upprisinn frá dauda, og verde hin seinne svikenn argare þeim fyrre.

65. Pilatus sagdi til þeirra: Þar hafed þer vardmennenna; fared og forvared sem þer kunned.

66. Enn þeir geingu burt og forvørudu grøfena med vardmønnum, og innsigludu steinenn;

## 28. Capitule.

1. At kvøllde sabbathsdagsins, sá er hefst hinn fyrste heilague dagur í sabbathsdøgum, at morgne, kom Maria Magdalena, og hin ønnur Maria at siá grøfena.

2. Og siá! þar vard jardskiálfte mikell. Þviat eingell drottins kom nidur af himne, geck þar at, vellte steinenum frá dyrunum, og sette sig þar úppá.

3. Og hans ásiána var sem elldíng, og hans klæde hvít sem snió.

4. Enn vardhalldsmennerner skelfdust af ótta, og urdu líka sem væro þeir dauder

5. Enn engell drottens svarade og sagde til kvennanna: Eigi skulud þer óttast, þviat eg veit, at þer leited at Jesu, sem krossfestur var.

6. Eigi er hann her, því hann er upprisinn, svo sem hann sagde: komed her, og siáed þann stad, hvar herran lá.

7. Gánged skyndelega og seiged þad hans læresveinum: at hann se upprisinn af dauda, og siáed, at hann mun gánga fyrer ydur í Galileam, þar munud þer siá hann. siáed! eg sagde ydur þad.

8. Og þær geingu skyndilega út af grøfinne, med ótta og fagnade miklum, og hlupu svo at þær undervísudu þad hans læresveinum; og þá þær geingu at kunngera þad hans læresveinum.

9. Siá þú! þá mætte þeim Jesus og sagde: Heilar seud þer! Og þær geingu til hans og helldu um hans fætur, og tilbádu hann.

10. Þá sagde Jesus til þeirra: Eigi skulud þer óttast; farid og kunngerid mínum brædrum, at þeir gánge í Galileam, og þar skulu þeir mig siá.

11. Enn medann þær geingu burt, siá, þá komu nockorer af vardhalldsmønnunum í borgena,

og undervísudu þeim ædstu prestum allt hvad til hafde bored.
12. Og þeir sæfnuduſt samann med ölldungunum halldande rádstefnu, og gáfu strïdsmønnunum ærna peninga.
13. Og ſøgdu: Seiged, hans læreſveinar komu um nóit og ſtáln hønum, á medann ver ſvafum.
14. Og ef þad kann at heyraſt fyrer landsdómaranum, ſkulum ver ſtilla hann, og gera, at þer ſeud tranſter.
15. Og þeir tóku peningana, og gerdu ſvo ſem þeim var kennt. Og þeſſe ordſtuur er vídfrægur ordenn medal Gydinga allt til þeſſa dags.
16 Enn þeir elleſu læreſveinar geingu í Galileam á eitt fiall, þad er Jeſus hafde þeim fyrerſkipad.
17. Og er þeir ſáu hann, tilbádu þeir hann: enn nockrer efudu þad.
18. Og Jeſus geck til þeirra, talade vid þá og ſagde: Allt valld er mer gefid á himnum, og á jørdu.
19. Fyrer því gánged þer út, og læred allar þióder, og ſkíred þær í nafne fødurs, ſonar, og heilags anda.
20. Og kenned þeim at hallda allt, hvad eg band ydur. Og ſiáed! eg em med ydur alla daga, allt til enda verolldar!

Ender S. Matthei Gudſpialla.

# S. Marci Evangelium.

## 1. Capitule.

1. Þetta er upphaf evangelii um Jeſum Chriſtum Guds ſon, ſvo ſem ſkrifad er hiá ſpámønnunum.
2. Siá! Eg ſende minn engel fyrer þer, ſá ſem tilreide þinn veg fyrer þer.
3. Þar er ein predikara rødd í eydemørku: greided þer veg drottins, og gered hans ſtigu retta.
4. Johannes var í eydemørku, ſkírde og predikade um idranar ſkírn, til ſyndanna fyrergefningar.
5. Og þar geck út til hans allt Juda land, og þeir af Jeruſalem, og þeir letu aller ſkíra ſig af hønum í Jordan, játande ſínar ſynder.
6. Enn Johannes var klæddur med ulfballds hárum og eitt ólarbelte um hans lendar, og hann át eingeſprettur og ſkógarhunang.
7. Og predikade og ſagde: Þar kemur einn efter mig, ſem er ſterkare enn eg, hvers eg em eigi verdugur frammfallande upp at leyſa þveinge hans ſkóſata.
8 Eg ſkíre ydur med vatne, enn hann mun ſkíra ydur med heiløgum anda.
9. Og þad ſkede á þeim døgum, at Jeſus kom af Galilea frá Nazareth, og ſkírdiſt af Johanne í Jordan.
10. Og ſtrax ſá hann upp úr vatnenu, og ſá himenenn opnaſt, og Andann í dofu líke ofann komande yfer hann.
11. Þá vard og rødd af himnum: Þú ert ſonur minn elſkulegur, at hverum mer vel þocknaſt!

12. Og þá strax dreif andenn hann á eydemørk.

13. Þar var hann í fiørutiu daga í eydemørkunni, og freistadest af Satan, og hann var þar med villudyrum: og englar þiónudu hønum.

14. Enn efter þad, er Johannes var gripenn, kom Jesus í Galileam, og predikade evangelium af Guds Ríke.

15. Svo seigiande: Sá tíme er nú uppfylltur, og Guds Ríke nálægest: idrest þer og trúed Evangelio!

16. Enn er hann geck med siónum í Galilea, sá hann Simonem, og Andream bródur hans, látande sín net í fiórenn, þvíad þeir voru fiskarar.

17. Jesus sagde til þeirra: fylged mer efter, og eg mun gera þad, at þer verded fiskarar manna.

18. Strax forletu þeir síu net, og fylgdu hønum efter.

19. Og þá hann var skammt burt þadann geingenn, sá hann Jacob son Zebedei og Johannem bródur hans, og þeir voru á skipe, at bæta at nete.

20. Og strax þá kallade hann á þá. Og þeir forletu sinn fødur Zebedeum í skipenu hiá leigusidunum, og fylgdu hønum efter.

21. Þeir geingu í Capernaum, og strax um sabbatsdagenn, geck hann inn í samkundu húsid, og kennde.

22. Og þeim ægde hans kenning; þvíat hann kennde þeim sem af valde, enn eigi sem hiner skriftlærdu.

23. Og einn madur var þar í þeirra samkundu húsi, halldenn af óhreinum anda. Sá kallade.

24. Og sagde: Hei! hvad høfum ver med þig ad gera, Jesus af Nazareth? Komstþú at glata oss? Eg veit hvor þú ert, hinn heilage Guds.

25. Jesus straffade hann og sagde: Þeige þú og far út af hønum.

26. Og sá óhreine ande hreif hann, og kallade upp hárre røddu og fór út frá hønum.

27. Og þeir hrædduft aller, svo at þeir spurdu at sín á millum, og søgdu: hvad er þetta? Eda hver er þesse hin nýa kenning? Þvíat af valld e skipar hann óhreinum øndum, og þeir hlída hønum.

28. Og hans rikte geck strax út um Galilea herød.

29. Þá geingu þeir strax út af samkundu húsinu, og komu til húsa Simonar og Andree med Jacobo og Johanne.

30. Enn móder húsfrein Simonar lá þar krønk í køldu, og strax þá søgdu þeir hønum til hennar.

31. Hann geck þá til hennar, reiste hana upp og hellt í høud hennar, og strax þá miste hún kølduunar, og þiónade þeim.

32. Enn um kvølldet, þá sólsett var, flutu þeir alls:kyns siúka menn og diøfulóda til hans.

33. Og allur stadurenn safnadest fyrer dyrunum.

34. Og hann hiálpade morgum siúkum, sem þiáder voru, af imsum sóttum. Hann rak og út marga diøfla, og eigi leyfde hann diøflunum at mæla, þvíat þeir þecktu hann.

35. Og at morgne fyrer døgun, stód hann upp, geck út, og fór burt í einn eydestad, og badst þar fyrer.

36. Enn Simon, og þeir sem med honum voru, skundudu efter honum.

37. Og þá þeir fundu hann, sögdu þeir honum: hver madur leitar at þer.

38. Og hann sagde til þeirra: Göngum ver í þessar nærstu borger, svo at eg predike og þar, því til þess kom eg.

39. Han predikade og í þeirra samkunduhúsum, um alla Galileam, og rak út diofla.

40. Og einn lí'þrár madur kom til hans, bidiande hann med hneigdum kniám, og sagde til hans: ef þú villt, þá sær þú mig vel hreinsad.

41. Enn Jesus sá aumur á honum, rette út sína hönd, áhrærde hann, og sagde til hans: eg vil, verþu hreinn.

42. Og þá hann sagde svo: hvarf strax lí'þráenn af honum, og hann vard hreinn.

43. Jesus hastade á hann, og rak hann strax frá ser.

44. Og sagde honum: sia þú at þú seiger þad engum, helldur far þú og syn þig prestinum, og sórna fyrer þína hreinsun, því sem Moses baud, til vitnisburdar yfer þá.

45. Enn þá hann kom út, hóf hann upp, og kunngerde margt þar útaf, og víðfrægde þennann gerning, svo at hann mátte eigi síðan opinberlega inngánga í borgena, helldur var hann þar fyrer utann í eydestödum: og þeir komu til hans úr öllum endemörkum.

## 2. Capitule.

1. Og nockrum dögum þar efter, geck hann aftur til Capernaum, og þad vard auglióst, at hann var í húsinu.

2. Strax söfnudust marger samann, svo at þeir höfdu ecke rúm, og einnenn fyrer utann dyrnar, og hann talade orded fyrer þeim.

3. Og þar komu nockorer til hans, færande einn iktsiúkann, hver borenn var af fiórum.

4. Og þá er þeir gátu eigi komest til hans, fyrer fólkenu, opnudu þeir þekiuna uppyfer honum, og gröfu þar geggnum og letu svo sængena nidur síga sem hinn Iktsiúke lá í.

5. Enn er Jesus sá þeirra trú, sagde hann til hins iktsiúka: Sonur minn! þínar synder eru þer fyrergefnar.

6. Enn þar voru nockorer Skriftlærder, sátu þar, og huxudu í sínum hiörtum.

7. Því talar þesse slíka gudlastan? Hver má synder fyrergefa nema Gud einn?

8. Og Jesus kann strax í sínum anda, at þeir þeinktu svo med ser, og sagde til þeirra: Því þeinked þer þetta í ydrum hiörtum?

9. Hvert er auðvelldara at seigia til hins iktsiúka, þer eru þínar synder fyrerlátnar? Eda at seigia: statþú upp, og tak sæng þína, og gack hedann?

10. Enn at þer vitid, at manns ins sonur hefir valld til á jördu, at fyrergefa synder, þá sagde hann til hins iktsiúka.

11. Eg seige þer: statt upp, tak sæng þína, og gack heim.

12. Og strax þá stód hann upp, tók sæng sína og geck út þadann í allra augsyn; svo at aller óttudust, og heydrudu Gud, seigiande: Alldrei höfum ver slíkt sed.

13. Og hann geck enn út aftur at siónum, og allt fólk kom til hans, og hann kende þeim.

14. Enn þá er Jesus geck framm hiá, leit hann Levi son Alphei, sitiande hiá tollbúdenne, og sagde til hans: Fylg þú mer efter. Hann stód upp og fylgde honum efter.

15. Þad gerdest, þá hann sat til bords í hans húsi, at marger tollheimtumenn, og bersynduger, settu sig til bords med Jesu og hans læresveinum, því þeir voru marger sem honum fylgdu efter.

16. Og er hiner Skriftlærdu og Pharisei sáu þad, at hann át med tollnrum og bersyndugum, sögdu þeir til hans læresveina: Því etur og dreckur hann med tollheimtumönnum og syndugum?

17. Þá er Jesus heyrde þad, sagde hann til þeirra: Þeir sem heilbrigder eru, þurfa eigi læknarans, helldur þeir sem siúker eru. Eg em komenn at kalla synduga, enn eigi rettláta til idranar.

18. Og Johannis og Phariseanna læresveinar fösudu miög. Og þar komu nockorer og sögdu til hans: Því fasta Johannis og Phariseanna læresveinar, enn þíner læresveinar fasta eigi?

19. Jesus sagde til þeirra: Hvernenn kann brúdkaups fólkid at fasta, ámedann brúdgumenn er hiá þeim? Svo leinge meiga þeir eigi fasta, sem þeir hafa brúdgumann hiá ser.

20. Enn sá tíme mun koma, at brúdgumenn verdur frá þeim tekenn; og þá munu þeir fasta.

21. Eingenn saumar nya klædisbót á gamallt fat, því hin nya bótenn glidnar frá hinu forna, og verda slitinn þá verre.

22. Og eingenn lætur nytt vín í forna ledurbelge, annars spreingeer vísned belgena, svo at vísned spillest, enn belgerner skemmast, helldur skal nytt vín látast í nya belge.

23. Enn þad skede, þa Jesus geck um sabbaths dag yfer kornakur, og hans læresveinar tóku til, í því þeir geingu, at tína axenn.

24. Og Pharisei sögdu til hans: Siá hvad þíner læresveinar gera á sabbathsdeige, þad er eigi hæfer!

25. Hann sagde þá til þeirra: Hafed þer eigi lesid hvad David gerde, þá hann þurfte vid, og hann húngrade og þá er med honum voru?

26. Hvernenn hann geck inn í Guds hús, í tíd Abiathars ypparsta prests, og át þaug skodunarbraud, sem engum leifdest at eta, nema prestunum, og hann gaf þau þeim, sem med honum voru.

27. Og hann sagde til þeirra: Sabbathsdagurenn er fyrer mannsins saker gerdur, enn eigi madurenn fyrer sabbathsdagsins saker.

28. Svo er mannsins sonur einn Herra, og einnenn sabbathsdagsins.

## 3. Capitule.

1. Hann geck og inn í samkunduhúsid aftur. Og þar var einn sá madur, sem hafde visnada hönd.

2. Og þeir gádu at, hvert hann læknade hann á sabbathsdeige, svo at þeir mætti áklaga hann.

3. Og hann sagde til mannsins, þess sem visna hafde höndena: Gack framm híngad.

4. Og hann sagde til þeirra.

Hvert skulu menn á sabbathsdøg- um gera godt edur illt? Lijenu vid hallda, edur deyda? Enn þeir þøgdu.

5. Hann leit þá til þeirra med reidesvip, og ángradest vid þeirra forherdtu hiørtu, og sagde svo til mannsins: Rettu út þína hønd. Og hann rette hana út, og hans hønd vard heil, lika sem hin ønnur.

6. Enn Pharisei geingu út, og helldu strax sín rád med Herodis þenurum, í móte hønum, hvernenn hellst at þeir feinge tortínt hønum.

7. Enn Jesus veik þadann til sláfar, med sína læresveina. Og margt fólk af Galilea, og úr Judea, þá fylgde hønum efter.

8. Og þeir sem voru af Jerusalem, og Idumea, og þeir hinummeigenn Jórdanar, og þeir sem byggdu í kringum Tyrum, og Sidonem, mikill mannfiølde, sem heyrdu hvad hann gerde, og komu til hans.

9. Og hann sagde til sinna læresveina: at þeir skylldu láta hønum skip til reidu, fyrer fólksins saker, uppá þad þeir þreyngdu hønum eigi.

10. Því at hann læknade marg- ann af þeim. Enn þeir trádust at hønum aller, þeir er plágader voru, at þeir mættu fá at snerta hann.

11. Og nær þeir óhreiner and- ar sáu hann, fellu þeir nidur fyrer hønum, og kølludu upp, og søgdu: Þú ert Guds sonur.

12. Enn hann straffade þá hardlega, at eigi openberudu þeir hann.

13. Og hann geck uppá eitt fiall, og kallade til sín þá hann villde: og þeir komu til hans.

14. Og hann skickade tólf, at þeir være hiá hønum, og at hann sende þá út at predika.

15. Og at þeir hefdo valld til sótter at lækna, og diøfla út at reka.

16. Og Simone gaf hann Peturs nafn.

17. Og Jacobo syne Zebedei og Johanni brodur Jacobs, þeim gaf hann nafned Boanerges hvad útþydest, reidarþruma børn.

18. Og Andream, og Phillippum, og Bartholomeum, og Mattheum, og Thomam, og Jacobum son Alphei, og Thaddeum, og Simon af Cana.

19. Og Judas Iscarioth, sá er sveik hann.

20. Og þá er þeir komu til herberges, kom fólkid enn samann aftur, svo at þeir gátu eigi matast fyrer því.

21. Og þá er þeir heyrdu þad, sem med hønum voru, geingu þeir út og villdu hamla hønum, þvíat þeir søgdu, at hann munde gánga af viteuu.

22. Enn hiner skriftlærdu, sem ofan frá Jerusalem voru farner, søgdu: Hann hefir Beelzebub, og fyrer Diøfla høfdingia þá rekur hann Diøfla út.

23. Og at þeim samankølludum sagde hann í epterlíkingum til þeirra: Hvernenn fær einn Satan annann útrekid?

24. Því ef eitt ríki tvístrast í siálfu ser, þá fær þad eigi staded.

25. Og ef eitt hús ósamþyckest í siálfu ser, þá fær þad hús eigi staded.

26. Og ef Satan rís upp í móte siálfum ser og er vid sig siálfann ósamþyckur, fær hann eigi stad- id, helldur er þá út gert um hann.

27 Enginn fær og innbrotest í hús hins öfluga, og burt gripid hans búsbúnad, nema at hann binde ádur hinn öfluga, og ræne síedann hans hús.

28. Sannlega seige eg ydur, allar synder fyrergefast mannanna börnum, og einnenn gudlastaner, med hvernm þeir lasta Gud.

29. Enn sá er lastar heilagann anda, hann hefir enga fyrergefning at eylífu, helldur verdur hann sekur eylífs dóms.

30. Þvíat þeir sögdu: hann hefir óhreinann anda.

31. Og þá kom móder hans og brædur, og stódu úti fyrer, sendu til hans kallandi á hann; og fólkid sat kríngum hann.

32. Og þeir sögdu til hans: Siá, móder þín og brædur þíner þar úte spyria at þer.

33. Hann svarade þeim og sagde: Hver er mín móder og míner brædur?

34. Þá leit hann og um sig til lærisveinanna, sem sátu í kríngum hann.

35. Og sagde: Siáed, þad er mín móder, og míner brædur.

36 Þvíat hver sem gerer Guds vilia, sá er minn broder, mín syster og mín móder.

# 4. Capitule.

1. Og hann tók enn aftur at kenna þeim vid sióenn. Þar safnadest samann margt fólk til hans, svo at hann vard at stíga á skip, og sat á siónum, og allt fólked stód þar á lande, vid sióenn.

2. Og hann predikade leinge fyrer þeim í eftirlíkingum. Og í sinne predikan, þá sagde hann til þeirra:

3. Heyred til. Siáed! einn sádmadur geck út at sá.

4. Og þad vard í því hann sáde, at sumt fell utann hiá veigenum, og þá komu fuglar under himnenum, og átu þad upp.

5. Enn sumt fell í grytt akurlende, þar þad hafde eigi mikla jörd, og rann sliótlega upp, þvíat þad hafde enga jardardypt.

6. Og þá er sólenn geck upp, skrældest þad, og af því þad hafde enga rót, þá fornade þad.

7. Og sumt fell í bland þyrna, og þyrnerner voxu upp og kæfdu þad, og þad færde enganu ávöxt.

8. Og sumt fell í góda jörd, og færde ávöxt, hvert ed uppox og friófgadest, og sumt færde þrítugfalldann, annad sextugfalldann, og sumt hundradfalldann ávöxt:

9. Og hann sagde til þeirra: Hver hann hefir eyru til at heyra, sá heyre!

10. Og þá hann var einnsamann, spurdu þeir sem hiá honum voru med þeim tólf hann at þessare eftirlíkingu.

11. Og hann sagde til þeirra: Ydur er þad gefid, at vita leyndardóma Guds ríkes; enn til þeirra sem þar eru fyrer utan, þá sker þad allt í eftirlíkingum.

12 At þeir med siáande augum siáe þad, og skine þó eigi; og med heyrande eyrum heyre, og underscande þó eigi, svo þeir snúest eigi, þad þeirra synder eitt sinn mættu fyrergefast.

13. Og hann sagde til þeirra: Kunned þer eigi at skilia þessa eftirlíking? Hvernenn munud þer þá kunna at skilia hinar allar?

14. Sádmadurenn sáer ordenu.

15. Enn þesser eru þeir sem
utann hiá vegenum eru, hvar ord-
ed verdur sáed; og þá þeir hafa
heyrt þad, kemur andskotenn skiótt,
og nemur burt þad ord, sem saed
var í þeirra hiørtu.
16. Lýka svo eru þeir einnenn
sem sádust í grytta jørd, því nær
þeir hafa heyrt ordid, þá medtaka
þeir þad strax med fagnade.
17. Og hafa enga rót i ser,
helldur hallda þeir vid um nockurn
tíma: enn nær ser hreifer umót-
gángur og offsókn fyrer ordsins sak-
er, þa hneixlast þeir strax.
18. Og þesser eru þeir sem í
bland þyrna sáduſt, þeir sem heyra
orded.
19. Og þá er þessarar verallder
áhyggia og swiksamlegur ríkdómur,
og adrar fleyre gyrnder gánga inn
og kefia ordid, svo blífur þad án
ávàxtar.
20. Og þesser eru þeir sem í
góda jørd eru sader, þeir heyra
ordid og medtaka þad, og færa
ávøxt; sumer þrítugfalldann, sum-
er sextugfalldann, og sumer hund-
radfalldann.
21. Og hann sagde til þeirra:
Kveikest nockad liós til þess, at
þad setest under mæleask edur bord?
Engan veigenn, helldur at þad
setest uppá einn kertahiálm.
22. Þvíat þar er ecki hulid, at
þad openberest eigi, og þar er eigi
leyndt, at þad kunngerest eigi.
23. Hver hann hefir eyru at
heyra, sá heyre!
24. Og hann sagde til þeirra:
Gæted at, hvad þer heyred; med
þeim mæler sem þer mæled út, þá
mælest ydur aptur, og ydur, sem
þetta heyred, skal vidaukast.
25. Þvíat hver hann hefir,
þeim skal gefast: og hver hann
hefir ecki, frá hønum mun takast
og einnenn þad hann hefir.
26. Og hann sagde: Guds ríki
er svo vared, sem þá madur kast-
ar fræe í jørdena.
27. Og sofnar, og hann stend-
ur upp nótt og dag.
28. Enn fræed grær og vex upp,
svo at hann veit eigi, þvíat jørd-
enn færer af ser siálfre, í fyrstu
grased, þar næst axed, og svo þar
næst fulle hveite í axinu.
29. Og er þad hefir frammleidt
ávøxtenn, þá sender hann strax
kornsigdena, þvíat kornskurdar-
tímenn er þá.
30. Og hann sagde: Hverin
skulum ver jafna Guds ríki? Eda
vid hverar eptirlíkingar vilum ver
því samanlíka?
31. Svo sem vid eitt mustards-
korn; þá því verdur í jørd saed, er
þad ølln sædi minna, á jørdunne.
32. Og þá því er saed, vex þad
upp og verdur øllum kálgrøsum
meira, og fær mikla kvistu, svo
at fuglar himens kúnna at byggia
under þess skugga.
33. Og í slíkum mørgum efter-
líkíngum þá kennde hann þeim,
efter því sem þeir þad heyrt gátu.
34. Og án efterlíkínga þá tala-
de hann eigi til þeirra. Enn ser-
deilis, þá lagde hann þad allt út
fyrer sínum læresveinum.
35. Og sama dags at kvøllde,
þá sagde hann til þeirra: Førum
ver her yferum.
36. Og þeir forletu fólkid, enn
tóku hann til sín. Sem hann var
á skiv komenn, voru þar fleyre
skiv hiá hønum.
37. Og þar gerdest mikell hvirf-
ilvindur, svo bylgiurnar fellu
yfer skipid, og þad fylltist upp.
38. Enn hann siálfur var í

skutnum og svaf á einum kodda; þeir vøktu hann þá upp og søgdu til hans: Meistare! Hyrder þú eigi um þad, at ver tortínunst?

39. Og hann reis upp og hastade á vindenn og sagde til siáfarens: Þagna þú, og vert hliódur. Og vindenn lægde, og þar vard logn mikid.

40. Og hann sagde til þeirra, því erud þer svo hrædder? Eda hvern gegner, þad þer hafid enga trú?

41. Og þeir óttudust nærsta miøg, og søgdu hver vid annann, hver er þesse? Þvíat vindur og siór hlyda hønum.

## 5. Capitule.

1. Og þeir komu hinummeigenn siáfarens, í bygder Gadarenorum.

2. Og er hann ste af skipenu, þá hlióp strax í móte hønum, úr grøfum frammlidinna manna, einn besetinn madur af óhreinum anda.

3. Sá er hafde sitt hybyle i grøfum daudra manna, og engenn feck hann bunded, og eigi med vidium.

4. Þvíat hann hafde oft bundenn vered med fiøtrum og vidium, og hann hafde vidiurnar af ser slited, og fiøturenn í sundur broted, og engenn feck hann tamed.

5. Og alltiafnt nætur og daga var hann á fiøllum, og í daudra manna grøfum kallande og lemiande sig med grióte.

6. Enn þá er hann sá lángt til Jesum, hlióp hann þángat, og fell framm fyrer hønum.

7. Kallade hárre rødu og sagde: Hvad hefe eg med þig at gera o Jesu! sonur Guds hins hædsta? Eg sære þig fyrer Gudi, at þú kveler mig eigi!

8. Enn hann sagde til hans: Far út þú óhreinn ande af þessum manne.

9. Og hann spurde hann at: hvad er þitt heite? Hann svarade og sagde: Legio er mitt heite, þvíat ver erum marger.

10. Og hann bad hann mikelega at hann ræke þá eigi burt frá þeirri bygd.

11. Og þar var í þeim stad hiá fiøllunum mikel svínahiørd á beit.

12. Og dioflarner bádu hann aller, og søgdu: Lofa oss þad, at ver førum í svínenn.

13. Og Jesus leyfde þeim þad strax. Þá fóru þeir óhreinu andar út, og hlupu í svínenn. Og svínahiørdenn fleigde ser med miklum þys í siðenn, nær tveimur þusundum, og druckndu þar í siónum.

14. Og svínahyrderner flydu, og kunngerdu þad í stadnum og í landenu. Og þeir geingu út, at siá, hvad þar hafde gerst.

15. Og komu til Jesu, og sáu þann sem af dioflum hafde setenn vered, sitiande klæddann og heilvita, og þeir hræddust.

16. Enn þeir sem þad høfdu sed, søgdu þeim, hvernenn gert hafde vered vid hann, sem af dioflunum hafde setenn vered, og svo frá svínunum.

17. Og þeir hófu upp at bidia hann; at hann fære í burt úr þeirra landsálfum.

18. Og er hann ste á skip, tók sá til at bidia, hann sem af Dioflunum hafde setenn vered, at hann mætte vera hiá hønum.

19. Enn Jesus lofade hønum þad eigi, heldur sagde hann til

hans: Far þú í þitt hús og til þinna, og kunnger þeim, hvad mikinn velgerning Drottenn hefir gert þer, og vered þer líknsamur.

20 Hann fór þadan og tók til út at hrópa um þær Tíu borger, hvad mikenn velgerning Jesus hafde honum gert; og hver madur undradest þad.

21. Og þá Jesus fór híngad yfer aftur á skipenu, kom samann margt fólk til hans, og hann var vid sióenn.

22. Og siá: Þar kom og einn af foringium samkunduhússins, Jairus at nafne: og þá er hann sá hann, fell hann nidur furer fætur hans.

23. Og bad hann mikelega og sagde: Mín dótter er komenn at framum: kom; og legg þína hönd yfer hana, svo hún verde heil, og life.

24. Og hann fór med honum. Margt fólk fylgde og honum efter, og þad þreyngde at honum.

25. Og þar var ein sú kona, er haft hafde blódfall í tólf ár; hún hafde og mikid þolad af mörgum læknirum.

26. Og hún hafde og kostad þar til öllu síuu, og þad stodade henne þó ecke, helldur vesnade henne mikln meir.

27. Þá hun heyrde af Jesu, kom hún med fólkenu á bak til, og snart hans klæde, þvíat hun sagde: ef eg fæ at eins at snerta hans klæde, þá mun eg heilbrigd verda.

28. Og jafnsnart þá uppþurkad est hennar blódbrunnur, og hún fann á sínum líkama, at hún var heil ordenn af sinne plágu.

29. Og Jesus fann strax á sialfum ser þann kraft, er útaf honum geck, og snere ser vid til fólksins og sagde: hver snart mín klæde?

30. Hans læresveinar sögdu til hans: þú ser, at fólked þreynger at þer, þó seiger þú: hver snart mig.

31. Og hann skygndest í kring efter henne, sem þad hafde gert.

32. Enn konann var hrædd og skiálfande (þvíat hún visse, hvad hana hafde sked) og kom og fell fyrer honum nidur, og sagde honum allann sannleik.

33. Enn hann sagde til hennar: mín dótter! þín trú gerde þig heila, gack í fride og vert heil af þinne plágu.

34. Þá hann var enn þetta at tala, komu nockorer af þenurum samkunduforingians og sögdu: þín dótter er öndud; því ómakar þú meistarann leingur?

35. Og Jesus heyrde strax hvad þar sagdest, og hann saade til samkunduforingians: óttast þú eigi, trú þú at eins.

36. Og hann let engann fylgia ser, nema Petrum og Jacobum, og Johannem bródur Jacobs.

37. Og hann kom í samkunduhöfdingians hús, og leit þar bulldran, og þá er þar gretu miög og æptu.

38. Og hann geck þángat inn, og sagde til þeirra: hvad bulldred þer og fyted? Barned er eigi daudt, hellur sefur þad.

39. Og þeir dárudu hann; enn hann rak þá alla út, og tók med ser fodur og módur barnsins, og þá sem med honum voru, og geck þángat inn, sem barned lá.

40. Og hann tók í hönd barnsins, og sagde til hennar: Talitha

kumi, það útlegst: stúlka! eg seige þer, rís upp.

41. Og þá strax reis stúlkann upp og geck, enn hún var tólf ára gømul. Og þeir urdu ómáta lega felmsfuller.

42. Og hann fyrerbaud þeim hardlega, at það skyllde engenn vita, og sagde: at þeir skylldu gefa henne at eta.

## 6. Capitule.

1. Og hann geck þadann og í sitt føsturland; og hans læresveinar fylgdu hønum eiter.

2. Og er sábbathsdagurinn kom, þá tók hann til at kenna í þeirra samkundu húse. Og marger af þeim, sem það heyrdu, undrudust hans kenning, og søgdu: Hvadann kemur hønum slíkt? Eda hver er sú speke, sem hønum er gefenn? og slík kraftaverk sem gerast fyrer hans hendur.

3. Er þetta eige einn tresmidur, sonur Mariu, og bróder Jacobs, Joses, Jude, og Simonar? Eru og hans systur eigi her med oss? Og þeir hneixludust á hønum.

4. Enn Jesus sagde til þeirra: at einn spámadur være hvergi í minna gillde enn á sínu føsturlande, og hiá sínum ættmønnum og heima.

5. Hann feck þar og eige neitt kraftaverk gert, nema yfer fáeina siúka, þá lagde hann hendur, og læknade þá.

6 Og hann undradest þeirra vantrú. Hann geck og allstadar í kring í kauptúnunum, sem þar stódu í byrging og kende

7. Og hann kallade á þá tólf, og tók at senda þá tvo og tvo, gaf þeim og valld yfer óhreinum øndum.

8 Og baud þeim, at bera ecke á veg med ser, nema einn staf, eigi pung, eigi brand, eigi pening í linda.

9 Helldur klædder skófotum, og það þeir klæddust eigi tveimur kyrtlum.

10. Og sagde til þeirra: í hvert það hús þer gánged inn, þá vered þar inne, til þess at þer fared þadann.

11. Og hverer eigi medtaka ydur, eda heyra ydur eigi, þá gánged út þadann, og hristed dust af fótum ydrum, til vitnisburdar yfer þá. Eg seige ydur fyrer sann: at lídanlegra mun verda á efsta dóme Sodóma og Gomorra, enn þeim stad.

12. Og þeir geingu út og predikudu, at menn skylldu gera idran.

13. Og þeir ráku út marga diøfla, smurdu og marga siúka med vidsmiøre, og læknudu þá.

14. Enn það kom fyrer konung Herodes; þvíat hans Nafn var nú kunnugt, og hann sagde: Johannes skírare er upprisinn af dauda, og því gerast slík kraftaverk af hønum.

15. Enn nockorer søgdu: það hann være Elias: enn nockorer, at hann være spámadur, ellegar einn af þeim spámønnum.

16. Og er Herodes heyrde þetta, sagde hann: Það er Johannes, sem eg hefe halshøggved, hann er nú upprisenn frá dauda.

17. Þvíat Herodes hafde sendt út at grípa Johannem, og lúkt hann í myrkvastofu, fyrer saker Herodias konu Philippi, bródurs hans, þvíat hann hafde gifst henne.

18. Enn Johannes sagde til Herodem: eigi er þad rett, at þú hafer bródurkonu þína.
19. Því veitte Herodias hønum umsat og villde láta aflífa hann, enn gat þó eigi.
20. Því Herodes óttadest Johannem, því hann visse hann vera gódann og heilagann mann, og vardveitte hann og hlydde hønum í mørgum greinum, og heyrde hann giarnann.
21. Og þar kom einn hentugur dagur, at Herodes gerde á sínne ártíd eina kvølldmáltíd høfdingum og høfudsmønnum, og hinum fremstu mønnum í Galilea.
22. Þá geck dótter Herodias þar inn, og dansade, og þad þócknadest Herodi vel, og þeim sem sátu til bords. Þá sagde konungurenn til stúlkunnar: Bid af mer hvers þú villt, eg vil veita þer þad.
23. Og hann sór henne einn eid, at hvers þú beidest af mer, þá skal eg gefa þer, allt inntil helmings af mínu kóngsríke.
24. Hún geck út og sagde til módur sinnar: Hvers skal eg bidia? Enn hún sagde: Um høfud Johannis skírara.
25. Hún geck þá strax med stundu til konungsins, bad hann og sagde: Eg vil, at þú gefer mer nú strax høfud Johannis skírara á einum diske.
26. Konungurinn hriggdest næsta mióg vid, og þó fyrer eidsins saker, og þeirra sem til bords sátu, þá villde hann eigi synia henne þess.
27. Og strax sende konungurenn bødulenn út, og baud at sækia hans høfud: Hann geck af stad, og afhøfdade hann í fángelsinu.
28. Og bar hans høfud framm á diske, og feck þad stúlkunne, enn stúlkann feck þad módur sinne.
29. Og þá þad heyrdu hans lærisveinar, komu þeir, tóku hans líkama, og løgdu hann í eina grøf.
30 Og Postularner komu tilsamans aftur til Jesu, og kunngerdu hønum allt þetta, og hvad þeir høfdu gert, og kennt.
31. Og hann sagde til þeirra: Látum oss gánga afsídis í eydemørku, og hvílast þar litla stund, þvíat marger voru þeir sem geingu frá og til, svo þeir høfdu eigi tóm til at eta.
32. Hann ste þar á skip og fór afsídes í eydemørk.
33. Og er fólkid sá þá í burt fara: þecktu hann marger, og hlupu þángat hver med ødrum á fæte úr øllum stødum, og komu fyrr enn þeir, og komu til hans.
34. Enn Jesus geck út, og sá þad marga fólk, og hann aumkade sig yfer þad, þvíat þeir voru sem adrer sauder, sem enganu hyrder hafa; og hann byriade eina lánga predikun.
35. Þá dagurenn var nú svo sem lidenn, geingu hans lærisveinar til hans og søgdu: her er óbygd, og dagurenn er umlidenn.
36. Lát þá frá þer, at þeir fare burt um kringum liggiande þorp, og kaupe ser þar brand, því þeir hafa eigi at eta.
37. Enn Jesus svarade og sagde til þeirra: Gefed þer þeim at eta. Og þeir søgdu til hans: Skulum ver þá fara út og kaupa fyrer tvø hundrud peninga brand, og gefa þeim at eta?
38. Enn hann sagde til þeirra:

Hversu mørg braud hafed þer? Gánged til og skodeð. Og þá þeir høfðu þad rannsakad, sögðu þeir: Fimm, og tvo fiska.

39. Og hann baud þeim, at þeir settu sig aller nidur til at eta, í adgreindum hopum, á grænt gras.

40. Og þeir settust og skipudust nidur, hundrad og hundrad sámann, fimmtíu og fimmtíu samann.

41. Og hann tók þau fim braud og tvo fiska, leit upp til himens, gerde þacker, og braut braudenn, feck sínum læresveinum þau, at þeir legdu fyrer þá, og þeim tveimur fiskum skifte hann og svo med þeim øllum.

42. Og aller þeir átu og urdu sadder.

43. Og þeir tóku upp molana, tólf karfer fullar, og af fiskunum.

44. Enn þeir voru sem etid høfðu fim þúsunder manna.

45. Og jafnsnart þá neydde hann sína læresveina til, at þeir færu á skip, og færu fyrer hønum yfer um til Bethsaida, þar til hann skilde fólked vid sig.

46. Og þá hann hafde skilid þad vid sig, fór hann uppá eitt fiall at bidiast fyrer.

47. Og um kvøllded, var skiped á midium siónum, enn hann einn á lande.

48. Og hann sá, at þeir voru naudstadder, í því þeir reru, þvíat vindurenn var móte þeim, og nær um fiórdu vakt næturinnar, þá kom hann til þeirra gángande á siónum, og hann villde gánga framm hiá þeim.

49. Og þú þeir sáu hann gángande á siónum, ætludu þeir þar vera munde vofa, og køllndu upp.

50. Þvíat þeir sáu hann aller, og urdu óttaslegner. Enn strax þá talade hann vid þá, og sagde til þeirra: Verid óhrædder, eg em þad; óttest eigi.

51. Og hann ste á skipid til þeirra, og vindenn lygnde. Og þeir óttudust, og forundrudust úr máta.

52. Þvíat þeim skilldest enn eigi af braudunum, og þeirra hiørtu voru forblindud.

53. Og er þeir voru yfer um farner, komu þeir í land Genesareth, og lendu þar.

54. Enn þá þeir stigu af skipenu, þecktu þeir hann strax.

55. Og hlupu út í øll umliggiande lønd, tóku til, og fluttu saman þar um kríng siúka menn á sængum, hvar hellst þeir heyrdu hann vera.

56. Og hvar sem hann geck inn í kauptún, stade og þorp, þá løgdu þeir siúka menn á storgid, og bádu hann, at þeir mætti snerta at eins falld hans fata. og aller þeir sem hann snertu, þá urdu þeir heilbrigder.

## 7. Capitule.

1. Þar komu og til hans Pharisei, og nockrer af hinum Skriftlærdu, sem komner voru frá Jerusalem.

2. Og þá þeir sáu nockora af hans læresveinum, med almennilegum høndum, þad er med óþvegnum høndum, eta braud, ávítudu þeir þad.

3. Þvíad Pharisei og aller Gydingar eta eigi nema þeir þvoe

oftsinnis sínar hendur, halldande svo ølldunganna setninga.

4. Og þá þeir koma af torgum, þá eta þeir eigi, nema þeir þvoe sig: og marger adrer hluter eru þeir, sem þeir høfdu undergengest at hallda, sem var þvottur dryckiar-kera, krúsa, kopar-kera og borda.

5. Þá spurdu Pharisei og hiner skriftlærdu hann at: Þvi gánga þíner læresveinar eigi efter setningunni ølldunganna, helldur eta þeir brand med óþvegnum høndum?

6. Hann svarade og sagde til þeirra: Rett vel þá spáde Esaias af ydur hræsnurum, sem skrifad er: Fólk þetta heidrar mig med vørunum, enn þeirra hiarta er lángt frá mer.

7. Enn til ónytis þena þeir mer, med þvi þeir kenna soddann lærdom, sem eigi er utann manna bodord.

8. Þer yfergefed Guds bodord, og hallded manna uppsetninga, sem er, krúser og dryckarker at þvo, og margt soddann, þá gered þer.

9. Og hann sagde til þeirra: Fínlega þá hafed þer aflagt Guds bodord, at þer mættud svo geyma ydarn uppásetning.

10. Þvíat Moses sagde: Heidra skalltþú fødur þinn og módur: enn hver hann bølvar fødur eda módur, sá skal dauda deya.

11. Enn þer kenned, þegar nockur seiger fødur eda módur þad: hvar med eg af mínu hiálpa þer, er eorban, eda gáfa.

12. Þá láted þer hann eigi framar nockud gera fødur sínum ne módur sinne.

13. Onyt gerande Guds ord fyrer ydra setninga, þá þer hafed sialfer uppásett, og margt annad þvílíkt þá gered þer.

14. Og hann kallade allt fólked til sín og sagde til þeirra: Heyred mig aller og understanded.

15. Þar er eigi fyrer utann mannenn innfarande í hann, þad hann fáe saurgad, helldur þad sem út af hønum geingur, þad er þad sem mannenn saurgar.

16. Hafe nockur eyru at heyra, sá heyre!

17. Og þá hann geck inn í húsid burt frá fólkenu, spurdu hans læresveinar hann at þessare efterlíkingu.

18. Enn hann sagde til þeirra: Erud þer þá og svo skilningslauser? Og skiled þer enn eigi, at allt þad, sem fyrer utan er, og inn fer í mannenn, þad fær eigi saurgad hann?

19. Þvíat þad fer eigi inn í hans hiarta, helldur fer þad í magann, og geingur svo út efter edlelegre rás, hver út hreinsar allann mat.

20. Og hann sagde: hvad sem útfer af mannenum, þad saurgar mannenn.

21. Þvíad innann frá, úr hiarta mannsins, þá frammganga vondar hugrenningar, hórdómar, frillulífe, manndráp.

22. Þiófnadur, ágyrne, hreckker, underhygga, ókúkt, illt tillit, gudlastaner, drambseme, heimska.

23. Allt þetta vondt, þá geingur þad út innann frá, og saurgar mannenn.

24. Hann stód upp, og fór þadann í landsálfur Tyri og Sidonis, og geck inn í eitt hús, og villde þad engann vita láta, enn feck þó eigi dulist.

25. Þvíat ein kona hafde heyrt

af hønum, hverrar lítel dótter hafde óhreinann anda, og hún kom og fell nidur fyrer hans fótum.

26. Enn þad var ein Grísk kona, af Syrophœnice; og hún bad hann at reka út Djøfulenn frá dótter sinne.

27. Enn Jesus sagde til hennar: Leyf þú, at børnenn metteſt ádur, þvíat þad er eigi tilheyrelegt, at taka braudet barnanna og kaſta því fyrer hundana.

28. Enn hún svarade og sagde til hans: Já Herra, því smá-hundarner eta under bordenu, af molum barnanna.

29. Og hann sagde til hennar: Fyrer saker þess ords, þá far hedann; Djøfullenn er útfarenn frá þinne dóttur.

30. Og hún geck þadann i sitt hús, og fann at Djøfullenn var útfarenn, og dótturena á einne sæng liggiande.

31. Og þá hann geck burt aftur úr bygdarlage Tyri og Sidonis, kom hann til siáfarins í Galilea, midt á medal þeirra Tíu stada.

32. Og þeir leiddu til hans daufann mann, þann sem var næsta stamur, og bádu hann, at hann villde leggia hønd yfer hann.

33. Og hann tók hann afsídis frá fólkenu, og stack sínum fíngrum í hans eyru, hrækte út og snart hans túngu.

34. Leit upp til himens, andvarpade og sagde til hans: Ephatha, þad er, opna þig!

35. Og strax þá opnuduſt hans eyru: þá uppleyſteſt og eirnenn hans túngu haft, og hann talade rett.

36. Og hann fyrerbaud at seigia þad neckerum. Enn því meir sem hann fyrerbaud þad, þess meir þá víðfrægdu þeir þad.

37. Og þeir undruduſt þad næsta miøg og søgdu: Allt hefir hann vel gert, því dausa lætur hann heyra, og málausa mæla.

## 8. Capitule.

1. A þeim tíma þá þar var margt fólk, og hafde eigi til matar, kallade Jesus sína læresveina til sín, og sagde til þeirra:

2. Mig aumkar yfer fólkid, því at þeir hafa nú þriá daga hiá mer dváled, og hafa eigi til matar.

3. Og ef eg læt þá faſtande frá mer heim fara, verda þeir húngurmorda á leidenne, þvíat sumer voru lángt atkomner.

4. Hans læresveinar svørudu hønum: Hvadan tøkum ver braud her á øræfum, at vær sedium þá med?

5. Og hann spurde þá at: Hversu mørg braud þá hafed þer? Þeir søgdu: Siø

6 Og þá baud hann fólkenn at setia sig nidur á jørdena. Og hann tók þaug siø braudenn, þackade, og braut þaug, og feck þaug sínum læresveinum, at þeir legdu þaug framm; og þeir løgdu þaug framm fyrer fólked.

7. Og þeir høfdu fá eina smá-fiska, og hann gerde þacker og baud þá framm at leggia.

8. Enn þeir neyttu og urdu metter. Þeir tóku og upp, þad yfer var, siø karfer med afgángs-leifar.

9. Og þeir sem etid høfdu voru nær fiórum þúsundum. Og hann let þá í burt fara frá sér.

10. Og strax þá ste hann á eitt skip med sínum læresveinum, og kom í þær landsálfur sem heita Dalmanutha.

11. Og Pharisei geingu út, og tóku at hafa spurningar vid hann, freistudu hans og gyrntust af hønum eitt teikn af himne.

12. Enn hann var þrúngenn í sínum anda, og sagde: Til hvers sæker þesse kynslód efter teikne? Sannlega þá seige eg ydur, at þessare kynslód gefst eigi teikn.

13. Og hann forlet þá og ste aftur á skip, og fór yferum.

14. Þeir høfdu og gleymt at taka braud med ser, og høfdu eigi nema eitt braud med ser í skipenu. Enn hann baud þeim.

15. Og sagde: Siáed til og vared ydur vid surdeige þeirra Phariseorum, og vid súrdeige Herodis.

16. Enn þeir hyxudu allt annad, og søgdu hver vid annann: þad er þad; at ver høfum einginn braud.

17. Og er Jesus fornam þad, sagde hann til þeirra: Hvad hyxed þer um þad, þó þer hafed eigi braudenn? Skined þer enn nú eigi, ne understanded? Hafed þer enn forherdt hiørtu í ydur?

18. Hafed þer augu enn siáed eigi, og hafed eyru og heyred eigi? Þer hyxed og eigi þar efter.

19. At eg braut fim braud millum fim þúsunda; hversu margar karfer fullar med afgángs leifar tókud þer þá upp? Þeir søgdu: Tólf.

20. Enn þá eg braut þaug siø á millum fiøgra þúsunda, hversu margar karfer fullar med leifar tókud þer þá upp? Þeir søgdu: Siø.

21. Og hann sagde til þeirra Hvernenn skiled þer þad þá eigi?

23. Hann kom til Bethsaida, og þeir leiddu þá einn blindann mann til hans, og bádu hann: at hann snerte hann.

23. Enn hann tók í hønd hins blinda og leidde hann útaf fyrer utann kauptúnid, spytte í hans auga, og lagde sínar hendur yfer hann, og spurde hann at; hvert hann sæe nockut?

24. Enn hann leit upp og sagde: Eg se mennena gánga líka sem eg sæe tre.

25. Þá lagde hann enn aftur hendur yfer hans augu, og baud hønum enn upp at líta. Og hønum batnade svo aftur, at hann sá allt klárlega.

26. Og hann sende hann til síns heimilis og sagde: Gack eigi inn aftur í kauptúned, seig þad og eigi neinum þar inne.

27. Jesus geck út og hans lærесveinar, til þeirra kauptúna hiá stadnum Cesarea Philippi, og á leidinne þá spurde hann sína læresveina at og sagde til þeirra: Hvern seigia menn mig vera?

28. Þeir svsudu: Þeir seigia, þú se Johannes skírare; enn adrer seigia, þú se Elias; enn sumer, at þú se einn af spámønnønum.

29. Þá sagde hann til þeirra: Enn þer, hvern seiged þer mig vera? Þá svarade Petur og sagde til hans: Þú ert Christur.

30. Og hann þaggade þá, at þeir segdu þad eigi neinum um hann.

31. Og hann tók til at kenna þeim, at mannsins sonur skylde margt þola, og hrakenn verda af øldungum, høfudprestum og skrift-

lærdom, og lifláten verda, og á
hinum þridia deige upprísa.
32. Hann talade og þetta ord
berlega út, og Petur tók hann til
sín og tók at átelia hann.
33. Enn hann snere ser vid, og
leit til sinna lærisveina, hastade á
Petrum og sagde: Vík frá mer
Satan, þvíat þú skilur eigi þat
gudlegt er, heldur þat sem mann-
legt er.
34. Og at samankølludu fólkenu,
ásamt hans lærisveinum, sagde
hann til þeirra: Hver hann vill
fylgia mer efter, afneite hann
siálfum ser, og take sinn kross á
sig, og fylge mer efter.
35. Þvíat hver hann vill be-
hallda sínu Líse, sá mun því tor-
tína, og hver hann lætur sitt Líf
fyrer mínar saker og evangelii, sá
mun behallda því.
36. Hvad stodar þat mannenn,
þóat hann vinne allann heimenn,
og líde skada á sinne sálu?
37. Eda hvad má madurenn
þat gefa, at hann leyse sína sál
med.
38. Enn hver hann skammast
mín edur minna orda, hiá
þessare hórunarsamre og syndugre
kynslód, vid þann mun mannsins
sonur skammast, þá hann kemur
med heiløgum englum, í dyrd
síns fødurs.
39. Hann sagde og til þeirra:
Sannlega seige eg ydur, at her
standa nockorer af þeim, hverer
eigi munu smacka daudann, þar
til þeir siá Guds ríke med krafte
komande.

## 9. Capitule.

1. Og sex døgum þar efter, tók
Jesus med ser Petrum, Jacobum
og Johannem, og veik þeim einn
umsømum uppá eitt hátt fiall ser-
deilis, og forkláradest fyrer þeim.
2. Og hans klæde urdu skín-
ande; og næsta hvít sem snior,
svo at engenn litunarmadur á
jordu, kann svo hvítt at gera.
3. Þeim birtest og Elias med
Moyse, og helldu eitt samtal vid
Jesum.
4. Petur svarade og sagde til
Jesu: Rabbí, godt er her at
vera, og gerum her þriár tialld-
búder, þer eina, og Moyse eina,
og Elie eina.
5. Enn hann visse eigi hvad
hann sagde: af því þeir voru
óttaslegner.
6. Þá kom eitt ský sem þá
yferskygde, og einn rødd kom úr
skyenu, seigiande: Þesse er minn
elskulegur sonur, hlyded þer hon-
um.
7. Og strax þar efter litu þeir
í kringum sig, og sáu engann,
nema alleina Jesum hiá ser.
8. Og er þeir gengu ofan af
fiallenu, fyrerbaud Jesus þeim,
at þeir segdu þad nockorum, hvad
þeir høfdu sed, þángat til Mannsins
sonur være upprisenn af dauda.
9. Þeir helldu og því orde hiá
ser, spyriande sín á mille, hvad
þad være at upprísa af dauda?
10. Og þeir spurdu hann at,
og søgdu: hvad er þat, þá hiner
skriftlærdu seigia; at Elias skule
fyrre koma?
11. Enn hann svarade og sag-
de til þeirra: Elias skal at vísu
ádur koma, og allt til lags færa;
þar at auk mun Mannsins sonur
margt lída og forsmádur verda,
svo sem þar skrifad stendur.
12. Enn eg seige ydur: at Elias
er kominn, og þeir hafa gert hon-

um, hvad hellst þeir villdu, soo
sem skrifad er af hønum.
13. Og hann kom til sinna læres
sveina, og sá þar margt fólk kríng
um þá, og hina skriftlærdu sem
spurdust á vid þá.
14. Og strax sem allt fólked
leit hann, feimtrade því, hlupu
at og heilsudu hønum.
15. Og hann spurde þá hina
skriftlærdu: at hveru spyrest þer
um vid þá?
16. Enn einn af fólkenu svara-
de og sagde: Meistare, eg flutte
son minn híngad til þín, hann
hefir mállausann anda.
17. Og þegar hann nær hønum:
þá slítur han hann, og hann
frodufeller, og gnyster tønnum,
og þornar upp, og eg talade til
þinna læresveina, at þeir ræku
hann út, og þeir gátu þad eigi.
18. Enn hann svarade hønum
og sagde: ó þú vantrúada kyn-
slód, hversu leinge þá skal eg hiá
ydur vera, eda hversu leinge á eg
at umlída ydur? Færed hann
híngat til mín.
19. Og þeir færdu hann þángad
til hans. Og strax þá andenn
leit hann, sleit hann hann, og fell
á jørd, og velltest, um, og frodu-
fellde.
20 Hann spurde og hans fødur
at: hversu lángur tíme er frá því
hann hrepte þetta? Enn hann sag-
de: frá barnæsku.
21. Og oftlega hefir hann fleygt
hønum í elld og vatn, at hann
fyrerfære hønum. Enn ef þú orkar
nockru; þá siá aumur á ockur, og
hiálpa ockur.
22 Enn Jesus sagde til hans:
Ef þú getur trúad: trúudum er
allt møgulegt.
23. Og strax þá kallade fader
barnsins upp med tárum, og sag-
de: eg trúe herra, hiálpa þú
minne vantrú.
24. Og þá Jesus sá, at fólkid
hlióp at, hastade hann á hinn
óhreina anda, og sagde til hans:
þú mállause og daufe ande! eg byd
þer, at þú farer útaf hønum, og
farer eige framar í hann.
25. Þá kallade hann upp, og
sleit hann miøg, og fór útaf høn-
um. Og hann vard sem være
hann daudur, soo at marger,
einnenn søgdu: hann er daudur.
26. Enn Jesus tók í hans hønd,
og reiste hann upp. Hann reis þá
upp.
27. Og þá hann kom heim,
spurdu hans læresveinar hann ser-
deilislega at: Því gátum ver eigi
drifed hann út?
28. Enn hann sagde: Þetta
kyn fæst med engu ødru móte
útreked, nema fyrer bæner og
føstu.
29. Og þeir gengu þadan, og
ferdudust um Galileam: hann
villde eg eigi, at þat skyllde nock-
ur vita.
30. Hann kende sínum læres
sveinum, og sagde þeim, at Manns
sins sonur skyllde seliast í manna
hendur, og þeir mundu aflífa
hann, og þá hann være aflífadur,
munde hann á þridia deige upp
aftur rísa.
31. Enn' þeir undirstódu eigi
þat ord: þordu þó eigi at spyria
hann at.
32. Og hann kom til Caperna-
um. Og sem hann var heima, spur-
de hann þá at: hvad handterudud
þer ydar á mille á vegenum?
33. Enn þeir þøgdu, þvíat þeir
høfdu handterad um á veigenum,
hver þeirra mestur være.

34. Og hann sette sig, og kallade þá tólf og sagde til þeirra: Ef nockur vill fyrstur vera, sá skal öllum sidastur vera og allra þiónn.

35. Og hann tók eitt barnkorn, og sette þat midt á millum þeirra, og hann fadmade þat, og sagde til þeirra:

36. Hver sá sem medtekur eitt þvílíkt barnkorn í mínu nafne, hann medtekur mig; og hver hellst hann medtekur mig, sá medtekur eigi mig, helldur þann, sem mig sende.

37. Og Johannes svarade hönum og sagde: Meistare! ver sáum einn þann, sem rak út Diöfla í þínu nafne, hver eigi fylger oss efter, og ver fyrerbudum hönum þat, af því hann fylgde oss eigi efter.

38. Enn Jesus sagde: Eigi skulud þer fyrerbióda hönum þat, þvíad eingenn er sá, ef hann gerer kraftaverk í mínu nafne, at hann kunne þá strax illa at tala um mig.

39. Hver hann er eigi á móte oss, hann er med oss.

40. Því hver sem ydur gefur at drecka einn bikar vatns; í mínu nafne, af því þer erud Christi; sannlega þá seige eg ydur: Ut þat skal hönum eigi óláunad verda.

41. Og hver hann hneixlar einn af þeim hinum litlu, sem á mig trúa, hönum være betra at kvarnarsteinn bindest vid hals hönum, og være svo í sió kastadur.

42. Og ef þín hönd hneixlar þig, þá högg hana af. Betra er þer handarvana inn at gánga til lífsins, enn hafande tvær hendur og fara til helvítis, í þann eylífa elld.

43. Hvar þeirra madkur deyr eigi; og hvar þeirra elldur slocknar eigi.

44. Og ef þig' hneixlar fótur þinn; þá afhögg þú hann. Betra er þer halltum inn at gánga til lífsins, enn, at þú hafer tvo fætur og kastest í helvíte, í þann eylífa elld

45. Hvar þeirra ormur deyr eigi, og þeirra elldur slocknar eigi.

46. Hneixle þig þitt auga, þá kasta þú því frá þer, betra er þer eineygdum inn at gánga í Guds ríke, enn at þú hafer tvo augu, og kastest í helvítis elld.

47. Hvar þeirra ormur deyr eigi, og hvar þeirra elldur slocknar eigi.

48. Allt hlytur med ellde at salltast, líka sem hvert offur skal med sallte salltast.

49. Sallted er godt, enn ef sallted dofnar, med hveru skulud þer þá sallta þat? Hafid þer sallt med ydur, og halldid frid hver vid annann.

## 10. Capitule.

1. Og hann bióst burt, og kom þar frá til landamerkia Judalands hinumeigenn Jordanar. þar kom og enn aftur flöckum saman fólkid til hans, og sem hann plagade, þá tók hann enn aftur at kenna þeim.

2. Pharisei geingu til hans, og spurdu hann at: Ef manni leyfest at forláta sína húsfrú? Freistande hans svo.

3. Enn hann svarade og sagde: Hvad hefir Moyses bodid ydur?

4. Þeir sögdu: Moyses leifde skilnadarbref at skrifa, og vid at skilia.

5. Jesus svarade og sagde til

þeirra: Vegna hardúdar ydars hiarta, þá skrifade hann ydur þetta, bodord.

6. Enn af upphafe skepnunnar skapade Gud einn karlmann og eina konu.

7. Þar fyrer skal madurenn forláta födur sinn og módur og skal vera samann vid sína konu.

8. Og þau tvö skulu vera eitt holld, af því eru þau nú eigi tvö, helldur eitt holld.

9. Hvad Gud hefir svo samtengt, þat skal enginn madur sundurskilia.

10. Og heima spurdu hans lærisveinar aftur at um hid sama.

11. Og hann sagde þeim: Hver sem skilst vid sína eigennkonu, og kvongast annare, sá dryger hór med henne.

12. Og ef konann forlætur sinn eigenn mann, og giftest ödrum, hún hórast.

13. Og þeir færdu úngbörn til hans, at hann áhrærde þau. Enn læresveinarner átöldu þá, sem þaug báru.

14. Og þá Jesus sá þat, reiddest hann, og sagde til þeirra: Leifed börnunum til mín at koma, og banned þeim þat eigi, því at þvílíkra er himnaríke.

15. Sannlega seige eg ydur: Hver hann medtekur eigi Guds ríke sem annad úngbarn, sá mun eigi inngánga í þat.

16. Og hann tók þaug 'í fang og lagde hendur yfer þaug og blessade þaug.

17. Og þá hann var útgeingenn á vegenn, hlióp þar einn framm, og fell á kne fyrer hönum, og spurde hann at: Gode meistare! hvad skal eg gera, svo at eg erfe eylíft líf?

18. Enn Jesus sagde til hans: Því kallar þú mig gódann? Engenn er gódur, nema Gud einn.

19. Bodordenn muntþú kunna? Þú skallt eigi hórdóm dryga; eigi mann vega; eigi stela; eigi skalltþú liúgtvitne mæla; þú skallt engann svíkia; heidra þinn födur og módur.

20. Enn hann svarade og sagde til hans: Meistare! allt þetta hefe eg vardveitt frá barnæsku minne.

21. Enn Jesus horfde á hann, og elskade hann og sagde til hans: Eitt þá brestur þig: far þú, sel allt hvad þú hefir; og gefþú þád fátækum, og þá muntþu hafa einn fesióð á himnum: og kom, og fylg þú mer efter, og tak krossinn uppá þig.

22. Enn hann vard hriggur vid þesse ord, og geck þadann syrgiande, því at hann hafde miklar eigner.

23. Jesus leit kríngum sig, og sagde til sinna læresveina: Hversu torvelldt er þeim ríkn inn at gánga í Guds ríke.

24. Enn læresveinarner hræddust hans ord. Enn Jesus ansade enn aftur og sagde til þeirra: Kæru börn! Hversu torvelldt er þeim, sem treysta á ríkdómenn, at gánga inn í Guds ríke

25. Audvelldara er úlfballdanum at gánga gegnum nálar augad, enn ríkum, inn at gánga í Guds ríke.

26. Þeir óttudust þá enn meir, og sögdu sín á millum: Hver kann þá hólpenn at verda?

27. Enn Jesus leit til þeirra, og sagde: Hiá mönnum er þat ómögulegt, enn eigi hiá gude, því at hiá gude er allt mögulegt.

28. Þá sagde Petur til hans:

Siá þú, ver forlatum allt, og høfum þer efterfylgt.

29. Jesus svarade og sagde: Sannlega seige eg ydur, at eingenn er sá, hver fyrerláti hús, eda brædur, eda systur, eda fadur, eda móder, eda eigenkonu, eda børn, eda akra, fyrer mínar saker, og evangelii.

30. Sá sem eigi fær hundradfaldt aftur nú á þessare tíd, hús, brædur, og systur, og mødur og børn, og akra, med offóknum, og í efterkomande heime eylíft líf, og marger munu verda seinaster sem eru fyrster.

31. Og þeir fyrster sem seinaster eru.

32. Enn þeir voru á vegenum og fóru upp til Jerusalem, Jesus geck fyrer þeim, og þá sette hlióda vid, fylgande hønum þó efter; og óttudust. Og Jesus tók þá tólf aftur til sín, og sagde þeim, hvad yfer sig munde koma.

33. Siá, ver førum nú upp til Jerusalem, og mannsins sonur mun seliast kennemannahøfdingum og skriftlærdum, og þeir munu fordæma hann til daudu, og selia heidingum.

34. Þeir munu og spotta hann og fleinga, spyta á hann, og lífláta, og á þridia deige mun hann upp afturrísa.

35. Þá geingu þeir Jacobus og Johannes syner Zebedei til hans og søgdu: Meistare, vid viljum: at þú gerer fyrer ockur, þat sem vid bidum þig?

36. Hann sagde til þeirra: Hvad viled þer, at eg skule gera ydkur?

37. Þeir søgdu til hans: Gef ockur, at ver sitium í þinne dyrd, einn til hægre hlidar þer, og annar til hinnar vinstre.

38. Enn Jesus sagde til þeirra: Þer vited eigi hvers þid bided; kunned þer at drecka þann kaleik, hvern eg mun drecka skiraft þeirre skírn, hverre eg mun skíraft?

39. Þeir søgdu hønum: Þat getum ver. Jesus sagde þá til þeirra: at sønnu munud þer drecka þann kaleik, hvern eg dreck, og med þeirre skírn; skírder verda, hverre eg mun skíraft.

40. Enn at sitia til minnar hægre og vinstre hlidar, er eigi mín at gefa ydkur, helldur þeim, sem þat er fyrerbúid.

41. Og þá er þeir tíu heyrdu þat, misþocknadest þeim vid Jacobum og Johannem.

42. Þá kallade Jesus þá og sagde til þeirra: Þer vited þat, at veralldleger høfdingar stiórna og vollduger á medal þeirra hafa vald.

43. Enn þat skal eigi svo vera ydar á mille, helldur hver hann vill vera mikell ydar á mille, sá skal ydar þenare vera.

44. Og hver hann vill ydar á mille ædstur vera, sá skal allra ydar þiónn vera.

45. Þvíat mannsins sonur er eigi komenn til þess, at láta þiona ser, helldur at hann þiónade, og gefe sitt líf út, til endurlausnar betalings fyrer marga.

46. Þeir komu og til Jericho, og at hønum burtfarande úr Jericho, og hans læresveinum, og miklum fólksfiølda, sat einn blindur, Bartimeus sonur Timei, vid vegenn, og þág ølmusu.

47. Og sem hann heyrde, at þat var Jesus af Nazareth, tók hann

tü at kalla og seigia: Jesus sonur Davids, miskuna þú mer!

48. Og marger høstudu á hann, at hann skyllde þeiga. Enn hann kallade þess miklu meir: Sonur Davids miskuna þú mer!

49. Og Jesus stód vid, og let kalla á hann: Og þeir kølludu á blinda, seigande til hans, hinn Vert þu med gódu gede, statt þú upp, hann kallar á þig.

50. Og hann kastade sínum klædum af ser, stód upp og kom til Jesu.

51. Jesus svarade og sagde til hans: Hvad vilþu, at eg skule gera þer? Enn hinn blinde sagde hønum: Rabboni, at eg verde sjáande.

52. Jesus sagde til hanns: Gack hedann, þin trúa gerde þig hólpen. Og strax þá sá hann, og fylgde hønum efter á vegenn.

## 11. Capitule.

1. Og þá þeir komu nær Jerusalem til Bethphage og Bethania, vid fialled vidsmørsvidanna, útsende hann tvo af sínum læresveinum.

2. Og sagde til þeirra: gánged þer í þad kauptún sem gegnt ydur er, og strax sem þer komed þar inn, munud þer finna fola bundinn, á hverum eingenn madur hefir enn setid, leysed hann, og leided hingat.

3. Og ef nockur seiger til ydar: Því gered þer þad? þá seiged, at Herran hafi hans þørf; og strax mun hann senda hann hingat.

4. Þeir gengu burt þadann, og fundu folann bundenn hiá dyrum úte á gatnamótenu, og leystu hann.

5. Og nockorir af þeim, sem þar stódu, søgdu, til þeirra: hvad gered þer, leysande folann?

6. Enn þeir søgdu til þeirra svo sem Jesus hafde þeim bodid, og þeir leyfdu þeim þat.

7. Og þeir færdu folann til Jesu, løgdu þar á sín klæde, og hann settest þar úppá.

8. Enn marger breiddu sín føt á vegenn, enn nockorer hiuggu kvistu af triánum, og dreifdu á vegenn, og þeir sem fyrer gengu og hiner sem efterfylgdu kølludu og søgdu: Hosanna!

9. Lofadur se sá, sem kemur í nafne Drottens.

10. Og lofad se Ríke fødurs vors Davids, þat sem kemur í nafne Drottens: Hosanna i upphædum.

11. Og Jesus geck inn í Jerusalem og inn í Musiered og umskygnde alla' hlute, og þá kvølld var nú komed, geck hann út med þeim tólf til Bethania.

12. Og annars dags, þá hann geck út af Bethania, hungrade hann.

13. Og hann sá áleingdar eitt fíkiutre, þad sem laufblød hafde, þá geck hann at vita, hvert hann fynde nockud á því. Og þá hann kom þángat, fann hann eigi nema laufblødinn alleina, því at þá var eigi fíkianna tíme komenn.

14. Jesus svarade og sagde til þess: her efter ete engenn af þer ávøxt at eylífu! og hans læresveinar heyrdu á þat.

15. Þeir komu og til Jerusalem, og Jesus geck inn í Musterered, tók til út at reka þá, sem seldu og keyptu í Musterenu, bordum þeirra, sem veidepeningum

skiftu, og skölum þeirra, sem dúfur seldu, hratt hann um.

16. Og eigi lofade hann, at nockur bære nockud ker um Mustered.

17. Og hann kende og sagde til þeirra: stendur þad eigi skrifad; at mitt hús skule kallast bænahús af öllum þjódum, enn þer hafed gert þat at spillvirkia bæle.

18. Og þetta kom fyrer þá skriftlærdu og kennemannahöfdingia, og þeir þeinktu um, hvernenn þeir mættu fyrerkoma hönum, enn þeir óttudust hann; af því at allur lydur dádest at hans kenningu.

19. Og um kvölldid geck hann út af borgenne.

20. Og at morgne þá gengu þeir þar framm hiá og sáu fíkiutred þurt orded at rótum.

21. Og Petur minntest þar á, og sagde vid hann: Rabbi! siáþú fíkiutred, hveru þú formællter, er uppvisnad.

22. Jesus svarade og sagde til þeirra: hafed trú til Guds!

23. Sannlega seige eg ydur: hver hellst hann segde til þessa fialls: lift þú þer upp, og fleyg þer í sióenn, efade eigi í sínu hiarta, helldur tryde, at þat munde svo ske, hvad hann seiger: þá munde þat og ske hann, hvad hann seiger.

24. Fyrer því seige eg ydur: allt hvad hellst þer bided í ydare bæn, og trúed, at þer munud ödlast þat, þá mun þad henda ydur.

25. Og nær þer standed og bided fyrer, þá fyrergefed, ef þer hafed nockurskonar ödrum í gegn, svo at ydar fader, sem er á himnum, fyrergefe ydur ydar brot.

26. Hvíat ef þer fyrergefed eigi, þá mun og ydar fader, sem er á himnum, eigi fyrergefa ydur ydar brot.

27. Þeir komu og aftur til Jerusalem. og þá hann geck í musterenu, komu til hans höfudprestar, skriftlærder og ölldungar.

28. Og sögdu til hans: út af hveru vallde gerer þú þetta? og hver hefir gefed þer valld til, at þú gerder þetta?

29. Enn Jesus svarade og sagde til þeirra: eg vil spyria ydur at einu orde; svared mer, þá mun eg seiga ydur, af hveru vallde eg gere þetta.

30. Skirn Johannis, var hún af himnum, eda af mönnum? svared mer.

31. Þeir hugsudu med ser og sögdu: ef ver seigum, at hún være af himne, þá seiger hann: því trúdud þer hönum þá eigi.

32. Enn ef ver seigum, at hún være af mönnum, hrædunst ver folkid, því at aller helldu, at Johannes være sannur spámadur.

33. Og þeir svörudu og sögdu til Jesu: ver vitum eigi. Jesus svarade og sagde til þeirra: þá seige eg og ydur eigi, af hveru vallde eigi gere þetta.

## 12. Capitule.

1. Hann tók og til at tala vid þá í eftirlíkingum. Madur plantade víngard og gerde gard um, og gróf þar vínpressu, og bygde þar upp turn, og leigde hann víngardsmönnum, og ferdadest lángt burt.

2. Og sem tíme var komenn,

sende hann þión sinn til víngardsmannanna, at hann tæke af víngardsuinnunum útaf víngardsins ávexte.

3. Enn þeir handtóku hann, og stryktu, og letu hann tómhendtann burt fara.

4. Og enn aftur sende hann annann þión til þeirra, og hann høfudlestu þeir grióte, og sleptu spottudum burt.

5. Og þá enn aftur sende hann annann, og þann afléfudu þeir, og fleyre adra; suma húdstrykfu þeir, enn suma drápu þeir.

6. Þá hafde hann enn efter einn einka son, sem hann hafde kærann, og þann sende hann seinastann til þeirra, og sagde: þeir munu feila ser fyrer syne mínum.

7. Enn þeir hinir sømu víngardsmenn søgdu sín á mille: þesse er erfingenn; komed þer, vegum ver hann, so verdur arfurinn vor.

8. Og þeir høndludu hann og afléfudu, og køstudu hønum út fyrer víngardenn.

9. Hvad mun nú herrann víngardsins gera til? hann mun koma og tortína víngardsmønnunum, og gefa víngardinn ødrum.

10. Hafed þer og eigi lesid þessa Skrift: þann stein sem byggendur burtkøstudu, hann er ordenn hyrningarsteinn.

11. Af Drottne er þat gert, og er undarlegt fyrer vorum augum.

12. Og þeir leitudu vid at handtaka hann; enn þeir óttudust lydenn, þviat þeir skildu vel, at hann sagde þessa efterliking uppá þá, og þeir forletu hann og gengu burt.

13. Og þeir sendu til hans nockora af Phariseis, og Herodis þenurum, at þeir veiddu hann í ordum.

14. Og þeir komu og søgdu til hans: Meistare! ver vitum, at þú ert sannsøgull og skeyter eigi neinum; þvíat þú ser eigi efter mannvirdingu, helldur kenner þú Guds veg rettelega: er þat rett at menn skulu gefa Keisaranum skatt edur eigi? skulum ver hann gefa, edur eigi gefa?

15. Enn hann fornam þeirra underhyggiu, og sagde til þeirra: því freisted þer mín? Færed mer einn pening, at eg siáe hann.

16. Og þeir færdu hønum hann, þá sagde hann: hvers er þesse mind og yferskrift? þeir søgdu hønum: Keisarans.

17. Þá svarade Jesus og sagde til þeirra: gefid þá Keisaranum, hvad Keisarans er, og þat Gude sem Guds er. Og þá furdade á hønum.

18. Þá geingu Saducei til hans, þeir sem hallda, at þar se eingenn upprisa, spurdu hann at, og søgdu:

19. Meistare! Moses skrifade oss, at ef nockurs manns bróder leteft, og hefde eigenkonu efter, og lete eingen børn efter sig, þá ætte broder hans at taka þá sømu hans eigenkonu, og uppvekia sínum bródur sæde.

20. Nú voru þar siø brædur, og hinn fyrste tók ser eigenkonu; hann andadest, látande eigi sæde efter.

21. Og sá annar tók hana, og andadest, let og eigi sæde efter.

22. Og líka hinn þridi og einn. enn þeir sïø tóku hana aller, og letu eigi sæde efter: seinast efter þá alla, andadest og konann.

23. Enn í upprisunne, þá er þeir rísa upp, hvers þeirra eigenkona, þá verdur hún, þvíat þeir sïø høfdu hana til eigenkonu?

24. Þá svarade Jesus og sagde til þeirra: er eigi svo, at þer villest, þar fyrer, at þer vited eigi ritningarnar, og eigi helldur Guds kraft.

25. Þvíat þá þeir rísa upp af dauda, kvongast þeir eigi, ne giftast, helldur eru þeir sem englar á himnum.

26. Enn um þá daudu, at þeir skulu upprísa, hafed þer eigi lesed í Moysis bók, hvernveg talade Gud til hans, hiá skógar runnenum og sagde: eg em Gud Abrahams, Gud Isaacs, og Gud Jacobs?

27. Eigi er hann Gud daudra, helldur Gud lifendra, af því villest þer miøg.

28. Og einn af skriftlærdum geck til hans, sá sem heyrt hafde þá spyriast á, og sá þad, at hann hafde svarad þeim vel, og spurde hann at: hvert er þat hædsta bodord af øllum?

29. Enn Jesus svarade hønum: þat er hit hædsta bodord af øllum: Heyr þú Israel, drottenn Gud vor er einn Gud.

30. Og elska skaltþú drottenn Gud þinn af øllu hiarta þínu, og af allre sálu þinne, og af øllu þínu hugskote, og af øllum krøftum þínum. Þetta er hid hædsta bodord.

31. Enn annat er og þessu líkt: Elska skaltþú náúnga þinn sem siálfann þig: 'Eigi eru þar ønnur bodord þessum meire.

32. Og hinn skriftlærde sagde til hans: Meistare! í sannleika sagder þú vel, þvíat einn er Gud, og eingenn er þar annar enn hann.

33. Og at elska hann af øllu hiarta, og af øllu hugskote, af allre sálu, og øllum krøftum, og at elska náúnga sinn sem siálfann sig, þat er øllum brenne-fórnum meira, og øllu offre.

34. Enn er Jesus sá, at hann svarade víslega, sagde hann til hans: Eigi erþú lángt frá Guds ríke. Og eingenn þorde þá at spyria hann framar meir.

35. Jesus svarade og sagde, er hann kennde í musterenu: Hvernveg seiga skriftlærder Christum vera Davids son?

36. Enn David seiger siálfur fyrer heilagann Anda: Drottenn sagde mínum drottne: Sit þú til minnar hægre handar; þar til eg legg þína óvine til skarar þinna fóta.

37. Þar nefner David hann sinn Drotten, hvernveg er hann þá sonur hans? Og margt fólk heyrde hann giarnann.

38. Og hann kende þeim og sagde til þeirra: Vared ydur vid skriftlærdum, þeim sem gánga í sídum klædum, og láta giarnann heilsa ser á torgum.

39. Og sitia giarnann efst í samkundu húsum, og til bords í gestabodum.

40. Þeir uppeta eckna hús, under hylmingu lángrar bænar; þeir munu og ødlast þess stærre fordæmingu.

41. Og Jesus settest þvert yfer frá Guds kistunne, og sá hvern-

enn fólkid varpadi peningum í gudskistunna, og marger ríker lögdu þar mikid í.

42. Enn þá kom ein eckia fátæk, let tvo skarfa ínn, þat er einn peningur.

43. Hann kallade sína lærefveina til sín og sagde þeim: Sannlega seige eg ydur, at þesse fátæka eckia let meir í gudskistuna, enn aller þeir sem letu þar í.

44. Þvíat aller letu af því sem þeim var afgángs; enn þesse let af volæde sínu, allt hvad hún hafde, sína biörg alla.

# 13. Capitule.

1. Og þá hann geck út af musterenu, sagde einn af hans læresveinum vid hann? Meistare: sjá, hvílíker steinar, og hvílík byggning þetta er!

2. Jesus svarade og sagde til hans: Ser þú allar þessar stóru byggingar; her mun eigi efterlátast steinn yfer steine, sá er eigi verde sundurbrotenn.

3. Og þá hann sat á fiallenu oliveti gegnt musterenu, spurdu hann at serilage, Petrus og Jacobus, og Johannes, og Andreas.

4. Seig þú ofs nær allt þetta skal ske, og hvert teikn skal verda, þá þetta skal allt fullkomnast?

5. Jesus svarade þeim og tók til at seiga: Siáed til at eigi fáe nockur villt ydur.

6. Þvíat marger munu koma í mínu nafne, og seiga: Eg em Christur; og munu marga villa.

7. Enn þá þer heyred af bardögum og hernadar tídendum, óttest eigi, þvíat þessu byriar at ske, enn endenn er þá þó enn eigi.

8. Ein þiód mun reisa sig upp í móte annare, og eitt konungsríke á móte ödru, og landskiálftarnnu verda her og þar, húngur og hrellingar munu og verda, þetta er upphaf eymdanna.

9. Enn siáed þer ydur fyrer, þvíat þeir munu framselia ydur í rádstefnur og samkunduhús, og þer munud strykter verda, og fyrer konunga og höfdinga munud þer leidder verda, minna vegna til vitnisburda yfer þá.

10. Og gudspiollum byriar ádur at predikast á medal allra þióda.

11. Þá þeir nú leida ydur og framselia, syrged eigi fyrer, hvad þer skulud tala; vered eigi helldur þar um forþeinkter ádur, helldur, hvad ydur gefst á þeirre sömu stundu, þat taled. Þvíat eigi erud þer þeir, sem tala, helldur heilagur ande.

12. Einn bróderinn mun selia annann í daudann, og fader sonenn; börnenn munu setia sig í móte foreldrunum, og styrkia til at deyda þá.

13. Og þer munud öllum verda at hatre fyrer míns nafns saker. Enn hver hann er stadfastur allt til enda, hann skall hólpenn verda.

14. Enn þá þer siáed svívirding foreydslunnar af hverre Daniel spámadur seiger, at hún stendur hvar eigi byriade. Hver þat les hann underslande þat; hver þá er á Gydinga lande, flye hann á fiöll.

15. Og hver hann er uppá ræfrenu, hann fare eigi nidur í húsid; og kome eigi þar ínn at sækia nockud í sínu húse.

16. Og sá sem er á akre, hann snúest eigi á bak ser aftur, at sækia föt sín.

17. Enn ve þúngudum konum og brióstmylkingum á þeim tímum!

18. Enn bided, at flótte ydar verde eigi um vetur.

19. Þvíat á þessum døgum verda slikar hørmungar, sem eigi hafa verid her til frá upphafe skepnunnar, þá sem Gud skapade, og allt til þessa, og eigi helldur mun verda.

20. Og ef Drottenn stytte eigi þessa daga, yrde eingenn madur hólpenn; enn fyrer útvaldra saker, hvera hann útvalde, hefir hann stytt þessa daga.

21. Og ef nockur seger þá til ydar: Siá! her er Christur; eda siá! þar er hann, þá trúed því eigi.

22. Þvíat upp munu rísa marger falschristar og falsker spámenn, og munu gera teikn og stórmerke, til at villa, ef verda mætte, einnenn útvalda.

23. Því siáed ydur fyrer. siáed! eg sagde ydur allt þetta fyrer.

24. Enn á þeim tíma efter þessa hørmung, mun sólenn og túnglid missa sitt skin.

25. Og stiørnur munu hrapa af himne, og kraftar himmanna munu hræra sig.

26. Og þá munu þeir siá mannsins son komande í skyum med stórum krafte og dyrd.

27. Og þá mun hann útsenda sína engla at samansafna sínum útvøldum af fiórum vindum, allt af enda jardar, og til himens enda.

28. Af fíkintrenu þá læred eina efterlíking: Því þá þess kvistur gerest friór, og fær lauf, þá vited þer, at sumared er í nánd. Svo og nær þer siáed þetta ske.

29. Vited at þat se þá nálægt fyrer dyrum.

30. Sannlega seige eg ydur: Þesse kynslód forgeingur eige, þar til allt þetta sker.

31. Himen og jørd munu forgánga, enn mín ord munu eigi forgánga.

32 Enn af þeim deige og stundu veit eingenn, eigi englar á himnum, og eigi sonurenn, helldur faderenn einn.

33. Siáed til, vaked og bided, þvíat þer vited eigi, nær tíd er.

34. Svo sem sá madur sem ferdadest lángt burt, forlet sitt hús, og gaf sínum þiónum yfervalldser hverium sitt verk, og baud dyraverdenum at hann vekte.

35. Því vaked nú, þvíat þer vited eigi nær herrann hússins kemur, hvert hann kemur at kvølllde, eda um midnætte, edur þá hanenn gelur, ellegar at morgne.

36. Svo at eigi kome hann skyndelega, og finne ydur sofande.

37. Enn hvat eg sege ydur, þat satt sege eg øllum: Vaked þer!

## 14. Capitule.

1. Enn efter tvo daga þá voru páskar, sætabrauds dagar. Og høfudprestar og skriftlærder leitudu efter, hvernenn þeir gætu høndlad hann med velum, og lífláted.

2. Enn þeir søgdu: Eigi þó um hátídena, svo ecki upphlaup verdi med fólkenu.

3. Enn þá hann var í Bethania í húsi Simonar þess spitelska, og sat vid bord, kom ein kona hafande alabastrum, med ómeingad og kostulegt nardus salve. Hún

braut glasid, og hellte því yfer høfud hønum.

4. Enn þar voru nockorer, sem stuggudust vid, og søgdu: Til hvers skal þesse sóun?

5. Þvíat þetta salve mætte seliast meir enn fyrer þriúhundrud peninga, og gefast fátækum. Og þeir deilldu á hana.

6. Enn Jesus sagde: Láted hana í fride, til hvers stygged þer hana? Godt verk gerde hún vid mig.

7. Fátæka hafed þer jafnan hiá ydur, og nær þ:r viled, meged þer gera þeim godt, enn mig, þá hafed þer eigi jafnann.

8. Hún gerde þat hún kunne; Hún kom fyrerframm at smyria minn líkama til minnar greftrunar.

9. Sannlega seige eg ydur: hvar helst í heime øllum, þetta gudspiall verdur predikad, þá mun seigast í hennar minning, hvad hún nu gerde.

10. Enn Judas Iscarioth, einn af þeim tólf, geck burt til høfudprestanna, at hann forrede hann.

11. Og þá þeir heyrdu þat; gløddust þeir, og þeir lofudu at gefa hønum peninga. Og hann leitadest vid, hvernenn hann gæte forráded hann sem hægast.

12. Og á hinum fyrsta sætabrauds deige, þá páskalambed offradest, søgdu hans læresveinar til hans: Hvert vilþú ver førum og reidum til, at þú neyter páskalambsins?

13. Og hann sende tvo af sínum læresveinum og sagde til þeirra: Gánged ínn í stadenn, og madur mun mæta ydur, berande vatnskrús, fylged hønum efter.

14. Og hvar helst hann gengur ínn, þá seged húsherranum: Meistarenn lætur sega þer: Hvar er þat herberge, hvar eg kunni, at neyta páskalambsins, med mínum læresveinum?

15. Og hann mun syna ydur einn stórann sal, steinlagdann, og tilbúenn: reided þer þar til fyrer oss.

16. Og læresveinar gengu út, og komu ínn í stadenn, og fundu svo sem hann hafde sagt þeim, og biuggu til páskalambed.

17. Og um kvølldet kom hann med þá tólf.

18. Og er þeir sátu til bords, og átu, sagde Jesus: Sannlega seige eg ydur, at einn af ydur, sá sem etur med mer, mun forráda mig.

19. Enn þeir urdu hrigger vid, og søgdu hver efter annann til hans:

20. Em eg þat nockud. og hinn annar: em eg þat nockud? Enn hann svarade og sagde til þeirra: Einn af þeim tólf, sá er dyfer í fatid med mer.

21. At sønnu fer mannsins sonur hedann, svo sem skrifad er af hønum, enn ve þeim manne, af hverum mannsins sonur verdur forrádenn: betra være þeim manne, at alldrei hefde hann fæddur verid.

22. Og í því þeir neyttu, tók Jesus braudid, gerde þacker og braut þat, og gaf þeim þat og sagde: Taked þer, og eted, þetta mit hølld.

23. Og hann tók kaleikenn, og gerde þacker, og gaf þeim hann; og þeir drucku aller af hønum.

24. Og hann sagde til þeirra: Þetta er mitt blód, þess nya

testamentes, sem fyrer marga útheltest.

25. Sannlega seige eg ydur; at eg mun eigi hedan í frá drecka af því sem vex á víntre: allt til þess dags, þá eg dreck þat nytt í Guds ríke.

26. Og at sungnum lofsaungnum, gengu þeir út til fiallsins Oliveti.

27. Jesus sagde til þeirra: Aller munud þer hneixlast á mer á þessare nótt, þvíat, skrifad stendur: Eg mun slá hyrderenn, og sauderner skulu tvístrast.

28. Enn efter þat eg rís upp, vil eg gánga fyrer ydur í Galilea.

29 Enn Petur sagde til hans: Og þó aller þer hneixlest, þá vil eg þó eigi heixlast

30. Og Jesus sagde til hans: Sannlega seige eg þer, at í dag, á þessare nóttu ádur enn hanenn galar tvisvar, munþú afneita mer þrisvar.

31. Enn hann talade enn framar: Þó at mer byriade at deya med þer, skyllde eg þó eigi neita þer. Og slikt hid sama søgdu þeir aller.

32. Og þeir kómu í þat gerdistún, sem het Gethsemane; og hann sagde til sinna læresveina: Setest þer her, á medann eg geng burt og bidst fyrer.

33. Og hann tók med ser Petrum, Jacobum, og Johannem, og tók til at skiálfa, og titra.

34. Og sagde til þeirra: Sála mín er næsta hrigg allt til dauda, blífed her og vaked.

35. Og þá geck hann litit leingra framm, fell á jørd, og badt, ef þat være møgulegt, at sú stund lide hiá.

36. Og sagde: Abba! Fader minn! allt er þer møgulegt, tak burt þennann kaleik frá mer; þó eigi sem eg vil, helldur sem þú villt!

37. Og hann kom og fann þá sofande, og sagde til Petrum: Simon sefur þú? Kunner þú eigi at vaka eina stund?

38. Vaked og bided, svo þer falled eigi í freistne, andenn er reidubúenn, enn holldid er veikt.

39. Hann geck og enn burt aftur, og bad, og talade hin sømu ord.

40. Hann kom aftur og fann þá aftur sofande, þvíat þeirra augu voru full af svefne, og eigi vissu þeir hvern þeir svørudu hønum.

41. Og hann kom í þridia sinn og sagde til þeirra: Æ, viled þer nú sofa og hvilast; þat er nóg, stundenn er komenn, siá; mannsins sonur mun seliast í syndugra hendur.

42. Standed upp, látum oss gánga, siáed! sá er mig forrædur, hann er í nánd.

43. Og strax sem hann var enn at tala, kom Judas, einn af þeim tólf, og med hønum mikel sveit; med sverdum og staungum, frá høfudprestunum, skriftlærdum, ogølldungum.

44. Enn svikarenn hafde gefed þeim eitt teikn, og sagt: Hvern helst eg kysse, sá er þat, gríped hann og leided vareygdarlega.

45. Og þá hann kom, geck hann strax til hans og sagde til hans: Rabbi! Rabbi! og kyste hann.

46. Þá løgdu þeir sínar hendur á hann, og gripu hann.

47. Enn einn af þeim, sem

þar hiá stód, dróg út sitt sverd,
og sló høfudprestsins þión, og
sneid af hønum eitt eyra.
48. Jesus svarade og sagde
til þeirra: Þer erud útgeinguer
svo sem til annars ræninga, med
sverdum og stanngum, at grípa
mig.
49. Hversdaglega var eg í mus-
terenu hiá ydur, og kende, og eigi
gripud þer mig, helldur þat rit-
ningenn uppfylldest.
50. Og lærisveinarner forletu
hann aller og flydu.
51. Og þar var einn úngur
madur sem fylgde hønum efter,
hann var klæddur línklæde yfer
bert hørund. Og hann gripu
sumur ungmenne.
52. Enn hann slepte línklædenu,
og flyde nakenn burt frá þeim.
53. Og þeir leitudu Jesum til
høfudprestsins, þar saman voru
komner aller þeir yppurstu prestar
olldungar og skriftlærder.
54. Enn Petur fylgde hønum
álengdar efter ínn í høfudprestsins
sal, og hann var þar, og sat
hiá þenerum, og vermde sig vid
elldinn.
55. Enn høfudprestarner og
allt rádid leitudu vitna gegn Jesu,
svo at þeir gætu sellt hann til dau-
da, og fundu engenn.
56. Marger báru falsvitne
móte hønum, enn þeirra vitnes-
burder voru eigi samlátande.
57. Og þar stódu nockorer upp,
og báru falsvitne móte hønum,
og søgdu:
58. Ver høfum heyrt hann
seiga: Eg vil þetta mustere nidur-
brióta, sem med høndum er gert,
og sunann þrigga daga uppbyggja
eitt annad, þat eigi er med hønd-
um gert.

59. Enn þeirra vitnisburder
komu enn þá eigi saman.
60. Og høfudpresturenn stód
upp medal þeirra, spurde Jesum
at, og sagde: Svarar þú engu
til þess; sem þesser vitna móte
þer?
61. Enn Jesus þagde og sva-
rade engu. Þá spurde høfud-
presturenn hann enn aftur, og
sagde til hans: Ertu Christur
sonur hins blessada?
62. Jesus sagde hønum: Eg
em, og þer munud siá mannsins
son sitia á hægre hønd kraftar-
ins, og komande med skyum him-
ens.
63. Enn høfudpresturenn reif
þá sinn kyrtel, og sagde: Hvad
þurfum ver meir vitnisburda vid?
64. Þer heyrdud gudløstunena;
hvad synest ydur? Enn þeir for-
dæmdu hann aller, at hann være
dauda sekur.
65. Þá tóku nockorer at spyta
á hann, og byrga hans ásiónu,
og at slá hann med knefunn; og
seigia til hans: Spá þú oss
Og þiónarner slóu hann pustra í
andlitid.
66. Og Petur var þar nidur í
salnum. Þá kom ein af ambáttum
høfudprestsins.
67. Og þá hún leit Petrum
verma sig: horfde hún á hann og
sagde: Og þú varst og med Jesu
af Nazareth.
68. Enn hann neitade og sagde:
Eg þecke hann eigi, og eigi veit eg
hvad þú seiger. Og hann gieck út í
forgardenn, og hanenn gól.
69. Og ambáttenn sá hann,
og tók aftur at sega þeim; sem
þar hiá stódu: Þesse er einn af
þeim.
70. Enn hann neitade enn aftur.

Og litlum tíma þar efter, sögdu
þeir aftur; sem hiá stódu, til
Peturs: Sannlega erþú einn af
þeim: Þvíat þú er ein Galileare,
og þitt mál hliódar svo.
71. Enn hann tók at formæla
ser, og sveria: Eigi þecke eg þann
mann, um hvern þer taled.
72. Og hanenn gól í annad sinn.
Þá minutest Petur þess ords;
sem Jesus hafde sagt til hans:
ádur enn hanenn galar tvísvar,
munþu afsveria mig þrísvar. Og
hann tók at gráta.

## 15. Capitule.

1. Og strax um morgunenn
helldu høfudprestarner rádstefnu
med ölldungnum, og Skriftlærd-
um, og þar at auk öllu rádenu,
og bundu Jesum, leiddu hann
burt og frammselldu Pilato.
2 Og Pilatus spurde hann at:
erþú konungur Gydinga? enn
hann svarade og sagde til hans:
þu seger þat.
3. Og høfudprestarner áklögudu
hann hardlega.
4. Pilatus atspurde hann aftur
og sagde: svarar þú engu? siá
hversu hardlega þeir áklaga þig.
5. Enn Jesus svarade engu
framar. Svo at Pilatus und-
radest.
6. Enn hann var vanur at gefa
þeim lausann um páskahátídena
einn bandinga, efter hverum helst
þeir beiddust.
7. Enn þar var einn sá, sem
het Barrabas med upphlaupsmönn-
um bundenn, hver í upphlaupenu
hafdi víg unned.
8. Og fólked geck upp, og bad,
at hann villde gera sem hann var
vanur.
9. Enn Pilatus svarade þeim:
viled þer, at eg gefe ydur Gyd-
inga konungenn lausann?
10. Þvíat hann visse, at høf-
udprestarner høfdu af øfund af-
hendt hann.
11. Enn høfudprestarner eggu-
du lydenn, at hann gæfe þeim
miklu helldur Barrabam lausann.
12. Þá svarade aftur Pilatus
og sagde til þeirra: hvad viled þer
þá; at eg skule gera hønum:
hvern þer áklaged, at hann se
konungur Gydinga?
13. Enn þeir kölludu þá aftur:
krossfestþú hann.
14. Pilatus sagde til þeirra,
hvad illt hefir hann gert? enn þeir
kölludu því meir: krossfestþú
hann.
15. Enn Pilatus þeinkte fólkenu
fullnægu at gera; gaf þeim lau-
sann Barrabam, og frammselldé
þeim Jesum húdstrycktann, at
hann krossfestur yrde.
16. Enn stríds-þenararner leid-
du hann í þínghúsed, og kölludu
samann allann hópenn.
17. Og færdu hann í purpura-
klæde, og flettudu eina þyrne-
kórónu, og settu á hann.
18. Og tóku at heilsa hønum:
heill se þú konungur Gydinga!
19. Og slóu hans høfud med
reirnum, og hræktu á hann; fellu
á kue og tilbádu hann.
20. Enn þá þeir høfdu spottad
hann; færdu þeir hann úr pur-
puranum, og færdu hann í sín
eigenn klæde, og leiddu hann út,
at þeir krossfestu hann.
21. Þeir þreyngdu og einum
sem frammhiá geck, Simone af
Cirene, sem komenn var af akur-
lande (födur þeirra Alexandri og
Ruffi) at hann bære hans kross.

22. Og þeir leiddu hann i þann ſtad Golgatha, þat þydeſt hauſaſkeliaſtadur.

23. Og þeir gáfu hønum í vıne myrrham at drecka, og hann tók þat eigi til ſín.

24. Og þá þeir høfdu kroſsfeſt hann; ſkiftu þeir klædum hans, og køſtudu hlutum, hvad hver ſkyllde hafa.

25. Enn þat var nær um þridiu ſtund, at þeir kroſsfeſtu hann.

26. Og þar var upp yfer hønum ſkrifad, hver ſok hønum var gefinn, ſem var: Konungur Gydinga.

27. Og med hønum kroſsfeſtu þeir tvo reiſara: einn til hægre handar, enn annann til vinſtre.

28. Þá vard ſú ritning uppfyllt ſem ſeiger: med illvirkum er hann reiknadur.

29. Og þeir ſem gengu þar framm hiá, hæddu hann, ſkóku høfud ſín, og ſøgdu: ſvei, hveruig nidurbrytur þú muſterid, og bygger þat upp á þremur døgum?

30. Hiálpa þú nú ſiálfum þer, og ſtíg her nidur af kroſſenum.

31. Eins einnenn hæddu hann høfudpreſtarner ſín á medal, med ſkriftlærdum, og ſøgdu: ødrum hiálpade hann, ſiálfum ſer getur hann eigi hialpad

32 Se hann Chriſtur og konungur Iſraels, þá ſtíge hann nidur af kroſſenum, at ver ſiáum, og meigum ſvo trúa. Og þeir ſem med hønum voru kroſsfeſter, forſmádu hann einnenn.

33. Og at lidenne ſiøttu ſtundu; urdu myrkur um allt landid; allt nær til níundu ſtundar.

34. Og um níundu ſtundu kallade Jeſus upp hátt, og ſagde: Eli eli lama ſabachtani? hvad útleggſt: Gud minn! Gud minn! því forlætur þu mig?

35. Og nockorer af þeim, ſem þar ſtódu hiá, þá þeir heyrdu þat, ſøgdu þeir: ſiá, hann kallar á Eliam.

36. Enn einn hliop at, og uppfyllte niardarvøtt med ediki, látande uppa einn reirlegg, gaf hønum at drecka, og ſagde: lát vera; ſiáum, hvert Elias kemur at taka hann ofann.

37. Enn Jeſus kallade upp hárre røddu, og uppgaf ſin anda.

38. Og tiallded muſtereſins rifnade ſundur í tvennt, frá ofanverdu, alt nidur í gegnum.

39. Enn þá høfudsmadurenn ſá þad, hver þar ſtód gegnt, at hann kallade ſvo, þá hann leiſt, ſagde hann: ſannlega hefir þeſſe madur verid Guds ſonur.

40. Og þar voru og ſvo kvinnur, ſem langt frá horfdu á þat, á medal hverra var Maria Magdalena, og Maria hins litla Jacobs, og Joſes Moder, og Salome.

41. Þær hønum høfdu eftirfylgt, þá hann var í Galilea, og þiónat hønum, og margar adrar, hverar med hønum høfdu uppfared til Jeruſalem.

42. Og þá kvølld var komed, af því þat var adfánga dagur, hver at er fyrer ſabbatsdagenn.

43. Kom Joſeph af Arimathia, einn ærlegur rádsherra, ſá og vonade efter Guds ríke; hann dyrfdeſt at gánga inn til Pilatum, og bad um líkamann Jeſu.

44. Enn Pilatus undradeſt, at hann være þegar látenn,

45. Og kallade høfudsmanninn, og ſpurde hann at, ef hann være

fyrer laungu andadur? Og þá hann vard þess vís ordenn af Höfudsmannenum, gaf hann Joseph líkamann.

46. Og hann keypte einn líndúk, tók hann ofann, og sveipade hann í líndúknum, og lagde hann í eina gröf, hver klöppud var í einn stein, og vellte steine at grafardyrunum.

47. Enn Maria Magdalena og Maria Joses sáu til, hvar hann var lagdur.

## 16. Capitule.

1. Og þegar sabbathsdagurenn var lidenn, keyptu þær Maria Magdalena og Maria Jacobi og Salome dyrdleg smyrsl, at þær kæmu og smyrdu hann.

2. Og miøg snemma á fyrsta degi vikunnar, komu þær til grafarennar, um sólar uppruna.

3. Og hver þeirra sagde til annarar: Hver mun vellta fyrer oss steinenum af grafarmunnanum?

4. Og þær litu þángat, og urdu varar vid, at steinnenn var afvelltur, þvíat hann var næsta mikell.

5. Og þær fóru inn í gröfena, og sáu eitt úngmenne sitia til hægre handar, skryddann sídu klæde hvítu, og þær urdu hræddar.

6. Enn hann sagde til þeirra: Eigi skulud þer hrædast, þer leited at hinum krossfesta Jesu af Nazareth, hann er upprisenn og er eigi her; sjáed þann stad, hvar þeir lögdu hann.

7. Gánged helldur burt, og seged hans læresveinum og Petre, þat hann mun gánga fyrer ydur í Galileam; þar munud þer siá hann, efter því sem hann sagde ydur.

8 Enn þær geingu út skyndelega, og flýdu frá gröfinne, þvíat komenn var yfer þær skiálfte og hrædsla, og þær sögdu engum neitt, þvíat þær voru hræddar.

9. Enn er Jesus hafde snemma morguns uppriisd á fyrsta deige vikunnar þá byrte hann sig fyrst Mariu Magdalenu, frá hverre hann hafde útrekid siø Diøfla.

10. Hún fór og kunngerde þeim sem med hønum høfdu verid, sem hørmudu og gretu.

11. Og þá þeir heyrdu, at hann lifde, og hann være opennberadur fyrer henne; þá trúdu þeir eigi.

12. Efter þad þá tveir af þeim ferdudust, opinberade hann sig þeim í annare líkingu, þá þeir geingu um þorpa grundernar.

13. Og þeir sømu gengu burt, og kunngerdu hinum ødrum; þeim trúdu þeir og eigi.

14. Enn seinast, þá þeir ellefu sáu til bords, byrte hann sig, og ávítade þeirra vantrú, og hiartans hardúd, at þeir høfdu eigi trúad þeim, sem hann høfdu sed upprisenn.

15. Og hann sagde til þeirra: Fared út um allann heimenn, og prediked evangelium allre skepnu.

16. Hver hann trúer og verdur skírdur, sá skal hólpenn verda; enn hver eigi trúer, hann skal fordæmast.

17. Enn teiknenn sem þeim munu fylgia, sem trúa, eru þesse: í mínu nafne munu þeir Diøfla útreka, nyar túngur tala.

18. Høggorma útreka, og ef þeir drecka nockud banvænlegt, skal þat þeim eigi granda; yfer siúka

munu þeir sinar hendur leggia, og þá mun þeim batna.

19. Og efter þat Drottenn hafde þetta talad vid þá; vard hann uppnumenn til himens, og situr til Guds hægre handar.

20. Enn þeir geingu út og predikudu allstadar, og Drottenn var samverkande med þeim, og stadfeste orded fyrer medfylgande teikn.

Ender Gudspialla hins heilaga Marci.

# S. Lucæ Evangelium.

## 1. Capitule.

1. Af því at marger hafa ser fyrer hendur tekid, at frammsetia og frá at segia þeim hlutum, sem á medal vor hafa tilborid.

2. Svo sem þeir hafa oss í hendur fengid, sem frá upphafe hafa þat siálfer sed, og þenarar ordsins hafa verid.

3. Þá hefir mer syndst godt, efter því eg hefe uppspurt þat allt samant frá upphafe, at skrifa þat allt skickanlega þer til minn gode Theophile, med kostgæfne.

4. Svo at þú kunner at hafa vissare grundvöll á þeim lærdome, í hverium þú ert undervísadur.

5. Í tíd Herodis Juda konungs, var einn prestur sem Zacharias het, af skifte Abia, og hans húsfrú var af dætrum Aarons, sú het Elisabeth.

6. Enn þaug voru bæde rettlát fyrer gude, og gengu í öllum bodordum og setningum Drottins óstraffanlega.

7. Þaug áttu eigi barn, því at Elisabeth var óbyria, og bæde þaug voru vel elldrud.

8. Enn svo bar til, þá hann stundade prestlegt embætte fyrer gude, á tíma hans skiftes.

9. Efter sidveniu kennemanns skaparins. Og þá hönum hlotnadest, at hann skyllde veyfa reykelsinu, geck hann sún í mustere Drottins.

10. Og allur fólksfiöldenn var fyrer utann, og badst fyrer, um reykelsis veyfnartímann.

11. Enn hönum byrtest engell Drottins, standande á hægra veg reykelsis alltarestins.

12. Og Zacharias hræddist, þá hann sá hann, og ótte kom yfer hann.

13. Enn engellenn sagde til hans: Ottast þú eigi Zacharia, því at þín bæn er heyrd, og Elisabeth eigenkona þín mun þer son fæda, og hann skalt þú Johannes at nafne kalla.

14. Og þú munt af hönum fögnud og glede hafa, og marger munu fagna af hans fædingu.

15. Því at hann mun verda mikell fyrer Drottne. Vín og áfengann dryck mun hann eigi drecka, og þegar í modur kvide mun hann uppfylltur verda af heilögum anda.

16. Og mörgum Israels börnum mun hann snúa til Guds Drottens þeirra.

17. Og hann mun fyrer hönum framganga í anda og krafte Eliæ; svo at hann snúe hiörtum fedranna til barnanna, og van-

trúndum til kænsku rettlátra, at tilbúa svo Drottne reidubúit fólk.

18. Og Zacharias sagde til engelsins: Af hvern skal eg þat vita? Þvíat eg em gamall, og mín húsfrú er komenn til ára sinna.

19. Engellenn svarade og sagde til hans: Eg em Gabriel, sá sem framme fyrer Gude stendur, og eg em sendur at tala vid þig, at eg bode þer þetta.

20. Og siá, at þú munt mállaus verda, og eigi talad geta allt til þess dags, þá þetta mun frammkoma, fyrer því at þú trúder eigi mínum ordum, þaug sem upp skulu fyllast á sínum tíma.

21. Og fólkid beid efter Zacharia, og undradest, at hann dvalde svo lenge í mysterenu.

22. Enn þá hann geck út, gat hann eigi talad vid þá. Og þeir formerktu, at hann munde syn sed hafa í mysterenu. Og hann bendte þeim og var mállaus.

23. Þat skede og, þá lidner voru dagar hans embættis, at hann geck heim í sit hús.

24. Enn efter þá daga vard hans húsfrú Elisabeth þúngud, og leynde ser fimm mánude, og sagde:

25. Þannenn gerde Drottenn vid mig, á þeim dögum hann áleit mig, þá hann villde burt taka mitt hneixle, þat eg bar á millum manna.

26. Enn á hinum setta mánude var Gabriel engell sendur af Gude, í eina borg í Galilea, sem heiter Nazareth.

27. Til einnrar meyar, sem trúlofud var einum manne sem Joseph het, af húsi Davids; og heite meyarennar var Maria.

28. Og engellenn kom inn til hennar og sagde: Heil se þú nádarfulla, Drottenn er med þer" blessud er þú á medal kvenna!

29. Enn þá hún sá hann, vard hún hrædd af hans ordum; og þeinkte: hvílík kvedia er þetta?

30. Og engellenn sagde til hennar: óttast þú eigi Maria; þvíat þú fannst nád hiá Gude.

31. Siá, þú munt getnad fá í kvide þínum, og munt son fæda; og hans nafn skallt þú Jesus kalla.

32. Hann mun mikell verda, og kallast sonur hins hædsta. Og Gud Drottenn mun gefa hönum stól síns födurs Davids.

33. Og hann mun verda kóngur yfer húsi Jacobs at eylífu, hans konungs ríkis mun og engenn ender verda.

34. Þá sagde Maria til engelsins: Hvernenn skal þat gánga til, med því eg veit af engum manne?

35. Engellenn svarade og sagde til hennar: Heilagur ande mun koma yfer þig, og kraftur hins hædsta mun yfirskyggia þig, af því; at þat hid helga, sem af þer mun fædast, skal nefnast sonur Guds.

36. Og siá þú! Út Elisabeth frændkona þín gengur þúngud at einum syne í hennar elle, og þesse er hennar sette mánudur, sem halldenn var óbyria.

37. Enn Maria sagde: Siá, eg em ambátt Drottens, verde mer svo sem þú hefir sagt, og engellenn skildest vid hana.

39. Enn á þeim dögum stód Maria upp, og geck med flyter uppá fiallbygder til Juda borgar.

40. Og kom í hús Zacharie og heilsade Elisabeth.

41. Og þat skede svo, þá Elisabeth heyrde heilsun Mariu, at

barnid spratt upp í hennar kvide. Og Elísabeth vard full af heilögum anda.

42. Kallade upp hárre röddu og sagde: Blessud ert þú á medal kvenna; og blessadur er ávöxtur kvidar þíns.

43. Og hvadann kemur mer þetta, at móder Drottens míns kemur til mín?

44. Siáþú, þá rödd þinnar kvedin kom mer til eyrna, spratt barnid upp med fagnade í mínum kvide.

45. Og sæl er þú sem trúder, þvíat þat mun fullkomnast, hvad þer var sagt af Drottne. Og María sagde:

46. Sál mín upphefur Drottenn.

47. Og ande minn gledst í Gude frelsara mínum.

48. Þvíat hann leit á sína aumu ambátt; siá, hedann af munu mig sæla prísa allar ætter.

49. Þvíat hann gerde mikla hlute vid mig, sá sem volldugur er, og hans nafn er heilagt.

50. Og hans miskunseme varer án afláts, æ og alla tíma hiá þeim sem hann óttast.

51. Hann fremur makt med sínum armleggi, og sundurdreifer drámblátum í þaunkum þeirra hiarta.

52. Volldugum hrinder hann af stóle, og upphefur lítiláta.

53. Húngrada fyller hann gædum, og ríka lætur hann sáfeinga.

54. Hann mynnest miskunar, og hiálpar á fætur sínum þión Israel.

55. Svo sem hann talade til fedra vorra, Abrahams og hans sædis at eylífu.

56. Og María var hiá henne svo nær sem þriá mánude, og fór þar efter aftur til síns heimkynnis.

57. Og Elísabethar tíd kom, at hún skullde fæda, og hún fædde einn son.

58. Og þá grannar hennar og náfrændur heyrdu, at Drottenn hafde gert mikla miskun á henne, samglöddust þeir med henne.

59. Og þat skede á áttunda deige, þá þeir komu at umskera barnid, og nefndu hann efter sínum födur, Zachariam.

60. Enn móder hans svarade og sagde: Eingannveigenn; helldur skal hann Johannes heita.

61. Þeir sögdu til hennar: Þar er þó eingenn í þinne ætt, sem svo heiter.

62. Enn þeir vændust födur hans, hvad hann villde, at hann hete.

63. Og hann beiddest hnefaspiallds, skrifade og sagde: Hann heiter Johannes. Og þeir undrudust aller.

64. Og jafnskiótt laukst upp hans munnur og túnga, og hann talade, lofande Gud.

65. Og ótte kom yfer alla hans nágranna: og allt þetta sem sked var, vídfrægdest um allar fiallbygder í Judea.

66. Og aller þeir sem þat heyrdu, lögdu þat á hiartad, og sögdu: Hvert grunar þig, at þetta barn verde? Þvíat hönd Drottins var med hönum.

67. Og Zacharias fader hans fylltest af heilögum anda, spáde og sagde:

68. Lofadur se Gud Drottenn Israels, því hann vitiade og frelsan gerde sínu fólke.

69. Og hann uppreiste oss sálu-

hialpar horn, í húsi Þións Davids.

70. Svo sem hann talade fordum, fyrer munn sinna heiløgu spámanna.

71. At hann frelsade oss frá vorum óvinum, af hende allra þeirra, sem oss hata.

72. Og gerde miskunseme vid fedur vora, og mynntest á sinn heilagann sattmála.

73. Og á þat sære, sem hann sór fødur vorum Abraham, at hann gæfi oss þat.

74. At ver leystir af hende vorra óvina, þiónndum hønum án ótta, alla vora lífdaga.

75. J heilagleika og rettlæte, sem hønum þocknast.

76. Og þú barnkorn munt kalladur verda spámadur hins hædsta, þvíat þú munt fyrerenna angliti Drottens, at tilbúa hans vegu.

77. Og at gefa hans fólke skilning sáluhialparennar, sem er í fyrergefningu synda þeirra.

78. Fyrer þá hiartgróna miskunn Guds vors, í hverre hann vitiade vor, upprunnenn af hædum.

79. At lýsa þeim í myrkrum og í daudans skugga sitia, til at greida fætur vora á veg fridarens.

80. Enn barned vox upp, og styrktest í anda, og var á eydemørkum; allt til þess er hann skyllde gánga framm fyrer Jsraels fólk.

## 2. Capitule.

1. Enn þat bar til í þann tíma, at þat bod geck út frá keisaranum Augusto, at heimur allur skyllde skattskrifast.

2. Og þesse skattskrift var hin allra fyrsta, og skede í þann tíma, þá Cyrenius var landsstiórnare í Syria.

3. Og aller fóru at láta skrifa sig nidur til skatts, hver til sinnar borgar.

4. Þá fór og Joseph af Galilea úr borgenne Nazareth upp í Judeam, til Davids borgar, sú sem kallast Bethlehem, af því at hann var af húse og kyne Davids.

5. At hann lete skattskrifa sig, med Mariu sinne trúlofadre kvinnu, sem var ólett.

6. Og þá þaug voru þar, þá kom tímenn, at hún skyllde fæda.

7. Og hún fædde sinn frumgetinn son, og vafde hann í reifum, og lagde hann nidur í jøtuna, þvíat þaug høfdu eigi rúm í gesta herbergenu.

8. Og fiárhyrdirnir voru þar í sama bygdarlage, um grandaua vakande, sem vøktudu hiørd sína um nóttena.

9. Og siá, at engell Drottens geck til þeirra, og Drottins byrta liómade kringum þá, og þeir urdu næsta miøg óttaslegner.

10. Og engellenn sagde til þeirra: Hrædest eigi, siáed, eg boda ydur mikenn føgnud, þann sem ske skal øllu fólke.

11. Þvíat í dag er ydur frelsarenn fæddur, sá er Christur Drottenn í borg Davids.

12. Og hafed þat til merkis, þer munud finna barnid reifum vafed, og lagt vera í jøtuna.

13. Og jafnskiótt þá var þar hiá englenum margfiølde himneskra hersveita, sem lofudu Gud og søgdu:

14. Dyrd se Gude í upphædum, og fridur á jørdu, og mønnum gódur vili.

15. Og þá er englarner fóru frá þeim til himens, töludu hyrdirner hverir vid adra: göngum ver til Bethlehem, og siáum þat verk, sem þar er sk.d, sem Drottenn hefir openberad oss.

16 Og þeir komu med skunda, og fundu bæde Mariam og Joseph, og þar at auk barnid liggia í jötunne.

17. Enn þá þeir höfdu þat sed, vtbfrægdu þeir þat ord út, sem til þeirra var sagt af bessu þarne

18. Og aller þeir sem þat heyrdu, undrudust af þeim ordum, sem þeim var sagt af hyrdurunum.

19. Enn Maria vardveitte öll þesse ord og yfervóg þaug í sínu hiarta.

20. Og fiárhyrdararner sneru aftur, dyrdkande og losande Gud, fyrer allt þat, hvad þeir höfdu heyrt, og sed, efter því sem þad var sagt til þeirra.

21. Og þá átta dagar voru lidner, at barnid skyllde umskerast, var hans nafn kallad Jesus, hvad kallad var af englenum, ádur enn hann var geteun í módur kvide.

22. Og þá dagar hennar hreinsunar komu, efter Moysis lögum, höfdu þau hann til Jerusalem, uppá þat þau letu hann koma fyrer Drottenn.

23. Svo sem skrifad stendur í lögmále Drottins: at allt karlkyns, þat sem fyrst opnade sinnar módurkvid, þad skyllde kallast Drottne helgat.

24. Og at þaug gæfu offrid, efter því sem segest í lögmále Drottens, tvær turtildöfur, eda tvær úngar dúfur.

25. Og sía, at einn madur var í Jerusalem; iá sem Simeon het; og þesse same madur var rettlátur, og gúdhræddur; væntande efter huggun Israels, og heilagur Ande var med hönum.

26. Og hann hafde andsvar fenged af heilögum Anda: at hann skyllde eigi daudann siá, nema hann sæe ádur fyrre Christ Drottins.

27. Og hann kom af andans tilladan í musterit. Og þá foreldrarner höfdu barnet Jesum í mustered, at þaug gerdu fyrer hönum efter sidvenin lögmálsins.

28. Þá tók hann hann uppá sína armlegge, lofade Gud og sagde:

29. Nú lát þú Drottenn þión þinn efter ordum þínum í fride fara.

30. Þvíat mín augu hafa sed þitt hiálpræd.

31. Þat þú tilreidder fyrer öllum þiódum.

32. Liós til uppbyrtingar heidnum þiódum, og til dyrdar þíns fólks Israels.

33. Og Joseph og hans móder undrudust þat, hvat af hönum sagdest.

34. Og Simeon blessade þaug, og sagde til Mariu hans módur: siá, þesse mun setiast til falls og upprisu margra í Israel, og til merkes hver móte mun mælast.

35. Og eitt sverd mun þrenga ser gegnum þína sál, svo at auglióser verde hugskots þánkar margra:

36. Og þar var Anna spákona, dótter Phanuels, af kyne Asser, hún var komenn til sinna ára, og hafde lifad i sió ár med sínum eginn manne, efter sinn meydóm.

37. Og hún var nu ein eckia; hafande fióra vetur um áttræds,

hver eigi geck úr musterenu þiónande Gude nótt og dag, med føstum og bænahallde.

38. Þesse geck og samstundes þar at, og prísade Drottenn, og sagde af honum til allra þeirra, sem lausnarennar vónudu til Jerusalem.

39. Og er þaug høfdu allt fullkomnad, efter løgmále Drottins, snerú þaug aftur í Galileam til borgar sinnar Nazareth.

40. Enn barned vóx upp; og styrktest í anda, fullur vísdóms, og Guds nád var med hønum.

41. Og hans foreldrar gengu árlega árs til Jerusalem á páskahátíðene.

42. Og þá hann var tólf ára gamall; fóru þaug upp til Jerusalem, efter sidvenlu hátídarennar.

43. Og þá þeir dagar voru lidner, og þaug fóru heimleides aftur, blef barned Jesus í Jerusalem, og Joseph og hans moder vissu þat eigi

44. Og meintu at hann være hiá selskapnum. Og þaug voru komenn eina dagferd, og leitudu hans á medal frænda og kunningia.

45. Og þá þaug fundu hann eigi, gengu þaug aftur til Jerusalem, og leitudu at hønum.

46. Og þat skede svo efter þriá daga, at þaug fundu hann í músterenu; sitiande midt millum lærefedranna, heyrande þá, og adspyriande þá.

47 Enn aller þeir, sem hann heyrdu, undrudust yfer hans skilninge og andsvørum.

48. Og þá þaug sáu hann, brá þeim vid. Og hans móder talade til hans: Sonur minn, því breitter þú svo vid ockur? siá þú, fader þinn og eg leitudum harmþrúngen at þer.

49. Og hann sagde til þeirra: hvat er þat, at þid leited at mer? vited þer eigi, at mer byriar at vera í því, sem míns fødurs er?

50. Og þaug skildu eigi þat ord, sem hann mælite til þeirra.

51. Og hann fór med þeim ofann, og kom til Nazareth, og var þeim undergefenn. Og hans móder geymde øll þesse ord í sínu hiarta.

52. Og Jesu jókst alldur og vitska, og nád hiá Gude og mønnum.

## 3. Capitule.

1. A fimtanda áre keisaradóms Tiberii keisara, þá Pontius Pilatus var landstiórnare í Judea, enn Herodes fiórdúngshøfdinge í Galilea, og bróder hans Philippus fiórdungshøfdinge í Jturea, og um Trachonitidis herød, og Lisanias fiórdungshøfdinge til Abilene.

2. Þá þeir Annas og Caiphas voru høfudprestar, skede Guds befaling til Johannem son Zacharie í eydemørku.

3. Og hann kom í allt bygdarlag hiá Jordan, og predikade idrunar skírn, til syndanna fyrergefningar.

4. Svo sem skrifad stendur í málabók Esaie spámanns, sem seger: þar er eins predikara rødd í eydemørku; tilbúed þer veg Drottens, og gered hans stigu retta.

5. Aller daler munu fyllast, og øll fiøll og háisar munu lægast, og þad boged er mun rettast, og

hvad óslett er, mun snúast í sletta vegu.

6. Og allt hold mun siá Guds hiálpræd.

7. Enn hann sagde til fólksins, þess sem útgeck at skírast af hönum: Þer nödrukyn! hver kende ydur at flya undan tilkomande reide?

8. Fyrer því gered ávöxtu sem idrunin útkrefur, og taked eigi at segia: ver höfum Abraham fyrer födur; því at eg seige ydur, at Gud getur uppvaked Abrahams börn af steinum þessum.

9. Öxenn er allareidu lögd vid rót tresins. Hvert þat tre, sem eigi færer gódann ávöxt, mun upphöggvast og í elld kastast.

10. Og fólked spurde hann at, og sagde: hvad skulum ver gera? enn hann svarade:

11. Og sagde til þeirra: hver sem hefir tvo kyrtla, hann gefe þeim, sem engann hefir, og sá sem vister hefir, gere hann slíkt hid sama.

12. Tollheimtumenn komu og til hans, at láta skíra sig, og sögdu til hans: Meistare, hvad skulum ver þá gera?

13. Enn hann sagde til þeirra: krefed eigi meira enn ydur er fyrersett.

14. Þá spurdu hann stridsmenn at, og sögdu: hvad skulum ver þá gera? hann sagde til þeirra: kúged engann ne gered órett, og láted ydur nægia ydart kaupgialld.

15. Enn þá fólked grunade, og aller þeinktu í sínum hiörtum, ef verda mætte þat, at Johannes være Christur,

16. Svarade Johannes og sagde till allra: eg skíre ydur med vatne, enn sá kemur, sem sterkare er, enn eg em, hvers skóþvengi, eg em, eigi verdugur upp at leysa, hann mun skíra ydur med heilögum anda og ellde.

17. Hvers vindskúfla er í hans hende, og hann mun hreinsa sinn láfa, og samansafna hveitenn í eylífum ellde.

18. Og margt annad meira undervísade hann og bodade fólkenu.

19. Enn þá Herodes fiórdungshöfdinge straffadest af hönum fyrer Herodiadem bródurkonu sína, og fyrer allt annad íllt, sem Herodes gerde.

20. Þá lagde hann, ofaná þetta allt, Johannem í Fángelse.

21. Og þat skede, þá allt fólk let sig skíra, og Jesus var og svo skírdur, og badst fyrer; at himenenn opnadest.

22. Og heilagur ande ste ofann í líkamlegre mind yfer hann; sem dúfa, og ein rödd kom af himne og sagde: þú er sonur minn elskulegur, í þer þocknast mer!

23. Og Jesus hóf upp at vera nær þriátín ára, og var hallden sonur Joseps, sá sem var sonur Eli.

24. Sá var sonur Mathath, sá var sonur Levi, sá var sonur Melchi, sá var sonur Janna, sá var sonur Josephs.

25. Sá var sonur Mathathias, sá var sonur Amos, sá var sonur Nahum, sá var sonur Esli, sá var sonur Nagge.

26. Sá var sonur Maaths, sá var sonur Mathathias, sá var sonur Semei, sá var sonur Joseph, sá var sonur Juda.

27. Sá var sonur Johanna,

sá var sonur Resa, sá var sonur Zorobabel, sá var sonur Salathiel, sá var sonur Neri.

28. Sá var sonur Melchi, sá var sonur Addi, sá var sonur Kosam, sá var sonur Elmadam, sá var sonur Her.

29. Sá var sonur Jese, sá var sonur Eliezer, sá var sonur Jorem, sá var sonur Mattha, sá var sonur Levi.

30. Sá var sonur Simeon, sá var sonur Juda, sá var sonur Josephs, sá var sonur Jonam, sá var sonur Eliachim.

31. Sá var sonur Melea, sá var sonur Menam, sá var sonur Mathathan, sá var sonur Nathan, sá var sonur Davids.

32. Sá var sonur Jesse, sá var sonur Obed, sá var sonur Boas, sá var sonur Salomon, sá var sonur Nahasson.

33. Sá var sonur Aminadab, sá var sonur Aram, sá var sonur Esrom, sá var sonur Phares, sá var sonur Juda.

34. Sá var sonur Jacobs, sá var sonur Isaachs, sá var sonur Abrahams, sá var sonur Thara, sá var sonur Nachor.

35. Sá var sonur Saruch, sá var sonur Ragahu, sá var sonur Phaleg, sá var sonur Eber, sá var sonur Sala.

36. Sá var sonur Cainan, sá var sonur Arphaxad, sá var sonur Sem, sá var sonur Noe, sá var sonur Lamech.

37. Sá var sonur Mathusalah, sá var sonur Enoch, sá var sonur Jared, sá var sonur Maleleel, sá var sonur Cainan.

38. Sá var sonur Enos, sá var sonur Seth, sá var sonur Adams, sá var Guds.

## 4. Capitule.

1. Og Jesus fullur af heilögum anda, kom aftur frá Jordan, og færdest af anda á eydemörk.

2. Og freistadest af Dioflenum i fiorutiu daga, og hann neytte einkes á þeim dögum, og at þeim lidnum, húngrade hann sidan.

3. Dioflullenn sagde þá til hans: Ef þú er Guds sonur, seg steine þessum, at hann verde at braude.

4. Jesus svarade og sagde til hans: Skrifad stendur; at madurenn lifer eigi af braude einu, helldur af serhveru Guds orde.

5. Og Dioflullenn flutte hann uppá eitt hátt fiall, og synde hönum á augabragde öll rike veralldar.

6. Og sagde til hans: Allt þetta vellde og þeirra dyrd mun eg gefa þer, þviat þaug eru mer i hendur fengenn, og hverium eg vil, hönum gef eg þaug.

7. Ef þú villt tilbidia mig, skulu þaug öll þin verda.

8. Jesus svarade og sagde: Far burt frá mer þú Satan; skrifad er, Drottenn Gud þinn skalltþú tilbidia, og hönum einum þióna.

9. Og hann færde hann þá til Jerusalem, og sette hann ofan á bust musterisins, og sagde til hans: Ef þú er Guds sonur; fleyg þer her ofan af.

10. Þviat skrifad stendur: Sinum englum mun hann befala um þig.

11. At þeir vardveite þig, og at á höndum bere þeir þig, svo at þú dreper eigi þinum fæte vid nockorum steine.

12. Jesus svarade og sagde til hans: Sagt er; eigi skalltþú freista Drottinns Guds þins.

13. Og sem Diøfullenn hafde lycktad allar þessar freistingar, veik hann frá hønum um stundarsaker.

14. Og Jesus kom aftur í andakrafte til Galileam, og riktid um hann geck út í alla kringumliggande stade.

15. Og hann kende í þeirra samkunduhúsum, og af hverum manne vard hann prísadur.

16 Og hann kom til Nazareth, þar hann var uppalenn, og geck inn efter vana sínum á sabbathsdege í samkunduhúsid, stód upp og villde lesa.

17. Þá var hønum fengenn bók Esaie spámanns. Og þá hann fletteuppí bókenne, fann hann þann stad, hvar skrifad var:

18. Ande Drottins er hiá mer, og af því smurde hann mig, og sende mig at boda evangelium voludum, og at græda þau sundurknosudu hiørtu.

19. At predika þeim herteknu, at þeir skulu verda lauser, og þeim blindu syn, og þeim føngudu, at þeir skulu vera frier og lauser, og at predika þacknæmlegt ár Drottins.

20. Og þá hann let samann bókena, feck hann hana þenaranum, og sette sig, og aller þeir sem í samkunduhúsinu voru horfdu, á hann.

21. Enn hann hóf at sega til þeirra: J dag er þesse ritning uppfyllt fyrer ydrum eyrum.

22. Og aller gáfu vitnisburd af hønum, og undrudust þaug nádarsamlegu ord, sem gengu framm af hans munne, og søgdu: Er þesse eigi sonur Josephs?

23. Hann sagde til þeirra: Þer munud fullkomlega til mín segia þennann ordskvid: Læknir! Biarga siálfum þer, því hvat mikid høfum ver heyrt, at gert var til Capernaum, ger þú og eins her á þinne fósturjørdu.

24. Enn hann sagde: Sannlega sege eg ydur, at eingenn spámadur er þacknæmur a sinne fósturjørdu.

25. Enn í sannleik sege eg ydur: Margar eckiur voru í tío Elie, í Jsrael, þá himenenn var lucktur í þriú ár, og sex mánude; þá gerdest mikel dyrtíd um allt landid.

26. Og til engra þeirra var Elias sendur, nema í Sareptha þeirra Sidona til einnrar eckiu.

27. Og marger líkþráer voru í Jsrael í tíd Elisei spámanns, og eingenn þeirra vard hreinsadur nema alleina Naman af Syria.

28. Og aller fylltust þeir reide sem í samkunduhúsinu voru, þá þeir heyrdu þat.

29. Stódu upp og hnepptu hann útaf borgenne, og leiddu hann allt uppá fiallsgnypuna, þar þeirra borg var yferbygd, at þeir hrynde hønum þar afframm.

30. Enn hann geck burt midt á millum þeirra.

31. Og hann kom til Capernaum borgar í Galilea, og kende þeim þar á sabbathsdøgum.

32. Og þeir undrudust hans kenning, því hans ræda var af miklum mindugleika.

33. J samkunduhúsinu var madur setinn af óhreinum Diøfle, og kallade upp hárre røddu.

34. Og sagde: Hei! Hvad høfum ver med þig at gera, Jesu af Nazareth? Er þú komenn at fyrerfara oss? Eg veit hver þú er, sem er hinn heilage Guds.

35. Og Jesus straffade hann og sagde: Þeige þú, og far útaf

hønum. Og Diøfullenn fleygde hønum, midt framm í millum Þeirra, og fór útaf hønum, og grandade hønum at engu.

36. Og ótta sló yfer þá alla.

37. Og tøludust vid sín á mille og søgdu: Hvada hlutur er Þetta, at hann bydur óhreinum øndum af vallde og krafte, og Þeir fara út? Og hans rikte barst allstadar út í Því umliggande lande.

38. Og hann stód upp af samkundunne, og kom í hús Simonar: og módur kona Simonar var halldenn af mikille køldu, og Þeir bádu hann fyrer henne.

39 Hann geck til hennar, og hann baud køldusótenne, og hún forlet hana, og jafuskiótt reis hún upp og Þiónade Þeim.

40. Enn Þá sólenn var undergengenn, fluttu aller Þeir, sem høfdu siúka af allskyns siúkdómie Þá til hans. Enn hann lagde hendur yfer serhvern Þeirra, og læknade Þá.

41. Diøflar fóru og útaf mørgum kallande upp og søgdu: Þú er Christus sonur Guds. Og hann hastade á Þá; og let Þá eigi mæla, Þvíat Þeir vissu, at hann var Christur.

42. Enn Þá dagur var, fór hann og geck út á eitt eydeplats, og fólked leitade at hønum, og kom til hans, og Þeir helldu hønum, at hann fære eigi frá Þeim.

43. Hverium hann sagde: Mer byriar og í ødrum stødum at boda evangelium, útaf Guds ríke, Þvíat til Þess em eg sendur.

44. Og hann predikade í samkundahúsum í Galilea.

## 5. Capitule.

1. Enn Þat skede; Þá fólked Þreyngdest framm til hans, at heyra Guds ord, og hann stód vid sióenn Genezareth.

2. Og hann sá tvø skip standa vid sióenn, enn fiskemennerner voru stigner af skipe, og Þoodu net sín.

3. Þá ste hann á eitt skiped, sem Simonar vár, og bad hann at leggá litid frá lande, og hann settest nidur, og kende fólkenu af skipenu.

4. Og sem hann gaf upp at tala, sagde hann til Simonar: Far Þú út á diúped, og kasted nete ydru út, svo at Þer draged einn drátt.

5. Simon svarade og sagde til hans: Meistare, í alla nótt høfum ver erfidad, og tengum eigi, enn uppá Þitt ord, vil eg netenu útkasta.

6 Og Þá Þeir høfdu Þat gert, tinelucktu Þeir mikla mergd fiska, og Þeirra net rifnudu.

7. Og Þeir bendtu síaum feløgum, sem voru á ødru skipe; at Þeir kæmu og hiálpudu Þeim at draga, og Þeir komu og hlódu bæde skipenn full, svo Þaug sucku at mestu.

8. Þá Simon Petrus sá Þat, fell hann til kniánna Jesu, og sagde: Gack frá med Herra, Því eg em madur syndugur.

9. Af Því at felmtur var yfer hann komenn, og yfer Þá alla, sem med hønum voru, af Þeim fiskedrætte, sem Þeir fengu til samans.

10. Líka yfer Jacobum, og Johannem sonu Zebedei, lagsmenn Simonar: og Jesus sagde til Simonar: óttast Þú eigi, Þvíat hedann af, skallt Þu menn veida.

11. Og Þeir drógo sín skip at

lande, og yfergáfu alla hlute; og fylgdu hønum efter.

12. Þat skede: þá hann var í einnre borg, siá, at þar var madur fullur af spitelsku. Og þá hann sá Jesum, fell hann framm á sína ásionu, bad hann og sagde: Drottenn, ef þú villt, þá kannþu at hreinsa mig.

13. Og hann rette út sína hønd, og tók á hønum, og sagde: Eg vil, verþu hreinn. Og jafnskiótt hvarf spitelskann af hønum.

14. Og hann baud hønum at segia þat eingum, helldur gack og sýn þig prestenum, og fórna fyrer þinne hreinsan, sem Moyses baud, til vitnisburdar yfer þeim.

15. Og umrædann um hann kom æ lengra út, og þar kom margt fólk samann hann at heyra, og at læknast fyrer hann af sínum sóttum.

16. Enn hann veik ser í burt á eydemørk, og badst fyrer.

17. Og þat bar til á einum dege sem hann kennde, og þar sátu Pharisei og skriftlærder, sem komner voru af øllum kauptúnum úr Galilea og Judea, og frá Jerusalem, og kraftur Drottins geck út frá hønum at lækna þá.

18. Og siá, at nockorer menn báru einn mann á sæng, þann sem ikktsiúkur var, og sóttu til at koma hønum inn og leggia hann framm fyrer hann.

19. Og þá þeir gátu eigi funded fyrer fólkenu, hvar þeir skylldu flytia hann inn, foru þeir uppá þaked, og vundu hann nidur gegnum þaked, med sængenne midt á millum þeirra, framm fyrer Jesum.

20. Og þá hann leit þeirra trú, sagde hann til hans: Madur; þínar synder eru þer fyrergefnar.

21. Skriftlærder og Pharisei tóku til at hugsa med ser, og søgdu: Hver er þesse, sem mæler gudlastan? Hver má synder fyrergefa, nema Gud einn?

22. Enn þá Jesus fornam þeirra hugsan: svarade hann og sagde til þeirra: Hvad hugsed þer í ydrum hiørtum?

23. Hvert er audvelldara at segia: Þer eru þínar synder fyrergefnar; eda at segia: Statþu upp, og gack.

24. Enn svo at þer vited, at mannsins sonur hefir makt til á jørdu, at fyrergefa syndernar: sagde hann til hins icktsiúka: Þer sege eg, statþú upp og tak sæng þína, og gack heim.

25. Og jafnskiótt stód hann upp, þeim ásiáande, og tók sængena upp, þá sem hann hafde áleged, og geck heim, lofande Gud.

26. Og þeir óttudust aller, og lofudu Gud; og fylltust af ótta, og søgdu: í dag høfum ver sed undarlega hlute.

27. Efter þat geck hann út, og sá einn tollheimtumann, sem Levi var at nafne, sitiande hiá tollbúdenne, og sagde til hans: Fylg þú mer efter.

28. Og hann forlet allt, stód upp, og fylgde hønum efter.

29. Og Levi tilbió hønum miked gestabod í sínu húsi, og marger tollheimtu-menn og adrer sátu med þeim til bords.

30. Og skriftlærder og Pharisei møgludu vid hans læresveina, og søgdu: Því etid þer og dreckid med tollheimtumønnum og bersyndugum?

31. Og Jesus svarade og sagde til þeirra: Þeir þurfa eigi læknarans vid sem heilbrigder eru; helldur þeir sem siúker eru.

32. Eg em komenn at kalla synduga til idrunar, enn eigi rettláta.

33. Þá sögdu þeir til hans: Því fasta læresveinar Johannis svo oft, og bidiast fyrer svo miøg, og líka Phariseanna læresveinar, enn þíner læresveinar eta og drecka?

34. Hann sagde þá til þeirra: Þer meged eigi neyda brúdkaupsfólkid til at fasta, á medann brúdgumenn er hiá þeim.

35. Enn þeir tímar munu koma, at brúdgumanum mun frá þeim kippt verda, og þá munu þeir fasta.

36. Og hann sagde eina eftirlíking til þeirra: eingenn setur bót af nyu klæde á gamallt fat, annars rífur þad nya hit gamla í sundur, og bótenn af því hinu nya fellur eigi vid hid gamla.

37. Og engenn lætur nytt vín í forna belge, annars sprenger hid nya vínid belgena, og þad spillest, enn vínbelgerner tortínast.

38. Helldur skal nytt vín látast í nya belge, og mun þá hvertveggja forvarast.

39. Svo er og eingenn, sem dreckur af hinu gamla og vili strax hid nya, þvíat hann séger: hid gamla er heilnæmara.

## 5. Capitule.

1. Enn þad bar til á einum eftersabbaths-dege, at hann geck gegnum kornid, og hans læresveinar tíndu axenn, og átu, núande þaug med høndum sínum.

2. Enn nockorer af Phariseis sögdu til þeirra: fyrer því gered þer þad, sem eigi sómer at gera á sabbathsdøgum?

3. Jesus svarade og sagde til þeirra: hafid þer eigi lesid, hvad David gerde, þá hann húngrade, og þá sem med hønum voru?

4. Hvernenn hann geck inn í Guds hús, og tók skodunarbraudenn og át, gaf og þeim, sem med hønum voru, þaug sem engum bar at eta, nema prestunum alleinasta.

5. Og hann sagde til þeirra: Mannsins sonur er herra einnenn sabbathsdagsins.

6. Og þad skede á ødrum sabbathsdege, at hann geck inn í samkunduhúsid og kende. Og þar var sá madur, sem hin hægre hønd var á vísnud.

7. Enn skriftlærder og Pharisei hugdu at, hvert hann læknade á sabbathsdege, svo at þeir fyndu eina søk, hvar fyrer þeir mætti hann ákæra.

8. Þá formerkte hann þeirra huxan, og sagde til mans þess, sem høndena hafde vísnada: Ris þú upp, og gack framm hingat. Hann reis upp og geck framm.

9. Enn Jesus sagde til þeirra: Eg spyr ydur at: Hvert hæfer á sabbathsdøgum at gera godt edur illt? Líkam vid at hallda, edur tortína?

10. Og hann leit umkring uppá þá alla, og sagde til mannsins: Rett þú út þína hønd, og hann gerde þad; þá vard hans hønd heil aftur, og heilbrigd, sem hin ønnur.

11. Enn þeir fyltust af heimsku, og tøludu hver vid annann, hvad þeir villdu gera til vid Jesum.

12. Enn þad gerdest á þeim tíma, at hann geck á eitt fiall at

bidiast fyrer, og hann var um þá nótt á bænum til Guds.

13. Og þá dagur var, kallade hann sjna læresveina, og føre tólf af þeim, hvera hann nefnde postula.

14. Simon, hvern hann kallade Petrum, og Andream bródur hans, Jacobum og Johannem, Philipp um og Bartholomæum.

15. Mattheum og Thomam, Jacobum son Alphei, og Simon sem kalladest Zelotes;

16. Judam Jacobs son, og Judam Ischarioth, þann svikara.

17. Og hann fór ofann med þeim, og geck á einn slettann stat í mørkenne, og fleckur hans læresveina, og mikell fiølde fólks af øllu Judalande og Jerusalem, og úr Tyro og Sidon, liggande vid hafid.

18. Hverer komner voru hann at heyra, og at þeir læknudust af sínum sóttum, og þeir sem hrakter voru af óhreinum øndum, og þeir urdu heilbrigder.

19. Og allt fólked gyrntest at snerta hann, þvíat kraftur geck út frá hønum, og hánn læknade þá alla.

20. Og hann hóf upp sín augu yfer læresveina sína og sagde: Sæler erud þer voluder, þvíat ydart er Guds ríke.

21. Sæler erud þer, sem her húngra, þvíat þer skulud sadder verda. Sæler erud þer, sem her grátid, þvíat þer munud hlæa.

22. Sæler erud þer, ef Menn hata ydur, og fráskilia ydur, og hallmæla, og burt skúfa ydar nafne, svo sem argars illvirka, vegna Mannsins sonar.

23. Gleded ydur þá og dansed, þvíat siá, ydart verdkaup er mikid á Himne, þvíat þannig gerdu þeirra fedur vid spámennena.

24. Enn þar í mót, ve ydur audugum, þvíat þer hafid ydra huggun burtu.

25. Ve ydur sem nú erud sadder, þvíad ydur mun húngra. Ve ydur sem hlæed her, þvíat þer munud æpa og ýla.

26. Ve ydur, nær hver Madur lofar ydur, þvíat svo gerdu og þeirra fedur vid hina fölsku spámenn.

27. Enn eg sege ydur, sem áheyred: elsked þer óvine ydra, gered þeim godt, sem ydur hata.

28. Blessed þá sem ydur bølva, og bided fyrer þeim, sem ydur eru þver-brotner.

29. Og hver hann slær þig á þann eina kinnvanga, bióþ hønum og annann þar til; og hver hann tekur af þer þinn møttul, þá ver hønum eigi þinn kyrtil.

30. Og hver þig bidur, þeim gef þú: og hver hann tekur burt, hvad þitt er, þad heimt eigi aftur.

31. Og svo sem þer viled, at menn gere vid ydur; gered svo líka vid þá.

32. Og ef þer elsked þá, sem ydur elska, hvera hafed þer þar fyrer þeck? þvíat synduger elska og svo þá, sem þá elska.

33. Og þó þer gered þeim godt, sem ydur gera vel til, hvada þeck hafed þer þar fyrer? þvíat þetta sama gera einnenn hiner syndugu.

34. Og þó þer láned þeim, af hverium þer væntid launa, hver verdur þá ydar þeck? þvíat syndugir lána og svo syndugum; svo þeir take líkt vid líku.

35. Enn þó sem ádur, elsked þer ydra óvine; gered godt og

láneð, einskis þar fyrer væntande, þá mun yðar verdkaup mikið verda, og þer munuð verda børn hins hædsta; þvíat hann er góð-fús viður óþackláta og vonda.

36. Þar fyrer vered og miskunsamir.

37. Dæmed eigi, svo at þer dæmest eigi; fordæmed eigi; svo at þer fordæmest eigi; fyrergefeð, þá mun yður og fyrergefast.

38. Gefið, og skal yður gefast, fulla og samþrykta, skekna og yfersljótanlega mæling munu menn gefa í yðart skaut. Þvíat rett með þeirre sömu mælingu, með hverre þer mæled út, mun yður aftur mælast.

39. Og hann sagde þeim eina eftirlíking: fær blindur vísað veg einum blindum? falla þeir eigi báder í grøfena?

40. Eigi er læresveinnenn yfer sínum meistara. Því nær læresveinnenn er svo sem hans meistare, þá er hann algerdur.

41. Enn hvad ser þú ögn í þíns bróðurs auga; enn at þeim biálka, sem í þínu auga er, gáer þú eigi.

42. Eda hvernig máttþu segia bróður þínum: Bróder, leyf at eg drage øguena úr auga þínu; ef þu ser eigi siálfur biálkann í þínu auga. Þú hræsnare, drag þú fyrst út biálkann úr þínu auga, og siá þá til, at þú drager út øgnena úr þíns bróðurs auga

43. Því ecki godt tre ber fúinn ávöxt, og ecki fúið tre ber góðann ávöxt.

44. Hvert tre þeckest af sínum egenn ávexte, þvíat eigi lesa menn samann fíkur af Þyrnum, og eigi helldur Vínber af Þyslum.

45. Góður maður af góðum sjóð síns hiarta frammber gott, og illur maður af vondum sjóð síns hiarta frammber illt; þvíat af fylli hiartans mælir munnur inn.

46. Til hvers kalled þer mig herra! herra! og gered eigi það eg sege?

47. Hver hann kemur til mín, og heyrer mín orð og gerer þang; þann mun eg sýna yður hverum hann er líkur.

48. Hann er líkur þeim manne, sem bygde upp hús, og gróf diúpt, og sette þess grundvöll á hellu-biarge: enn þá vatnsgángur kom, dunde straumurenn á húsenn, og mátte það eigi hræra úr stað, þvíat það var grundvallað á hellu-biarge.

49. Enn hver hann heyrer og gerer eigi, hann er líkur þeim manne, sem bygde eitt hús á jörðu, án grundvallar, at hveru straumurinn dunde, og það fell jafnsnart, og hrapan þess húss var mikel.

## 7. Capitule.

1. Enn þá hann hafde lyktað sína rædu fyrer folkenu, geck hann til Capernaum.

2. Enn þiónn eins hundraðs höfdinga, lá dauðsiúkur, hver honum var mjög gedfelldur.

3. Og þá hann heyrde af Jesu, sende hann þá elldsta af Gyðingum til hans, og bað hann at koma og gera sinn Þíon heilbrigðann.

4. Enn þá þeir komu til Jesu, báðu þeir hann kostgæfelega, og sögðu: verður er hann þess, at þú veiter honum það.

5. Þvíat hann elskar vora Þjóð,

og hefir uppbygt fyrer oss vor samkundu-hús, þá geck Jesus med þeim þadann.

6. Og þá þeir voru nú eigi lángt frá husinu, sende høfudsmadurenn vine til hans og let sega honum: Ó Herra! þiá þig eigi, þvíat eg em eigi verdur, at þú gánger undir mit þak.

7. Þar fyrer hefe eg eigi reiknad siálfann mig verdugann til þín at koma, helldur mæl þú eitt ord, og þá verdur minn þionn heill.

8. Þvíat eg em madur yfer valld denn undergefinn, hafande undermer strídsmenn, og ef eg sege þessum: far, þá fer hann; og ødrum: kom, þá kemur hann, og þióne mínum: ger þetta, og þá gerer hann þad.

9. Enn þá Jesus heyrde þad, furdade hann á honum, og snerest vid, og sagde til fólksins sem honum fylgde efter: eg sege ydur, at eg hefe eigi funded þvílíka trú í Israel.

10. Og þá þeir, sem út voru sender, komu aftur til húsins, fundu þeir þann þión, sem siúkur hafde vered, heilbrigdann.

11. Og þad skede efter þad, at hann geck í eina borg, sem het Nain, og marger hans læresveinar fylgdu honum og fiølde fólks.

12 Enn þá hann nálgadest borgar hlidid, siá: þá var frammlidenn madur borenn út, einka sonur sinnar módur, og hún var ekia. Og mikell borgarmúgur geck út med henne.

13. Og þá Drottenn leit hana, hrærdest hann miskunar þar yfer, og sagde til hennar: æptu eigi.

14. Og hann geck þar at, og áhrærde børurnar, enn þeir sem báru, stódu vid, og hann sagde: Ungmenne, eg sege þer: rís upp.

15. Og sá reiste sig upp, sem frammlidenn var, og tók at mæla, og hann gaf hann hans módur.

16. Enn yfer alla þá kom ótte, lofudu Gud og søgdu: Spámadur mikell er á medal vor upprisenn, og hefir vitiad síns lyds.

17. Og þesse saga barst útaf honum um allt Judaland, og um øll kringumliggande lønd.

18. Og allt þetta kunngerdu Johanni hans læresveinar, og hann kallade tvo af sínum læresveinum til sín;

19. Og sende þá til Jesum, og let sega honum: erþú sá sem koma mun, eda eigum ver annars at bída?

20 Enn þá þeir menn komu til hans, søgdu þeir: Johannes skírare sende oss til þín, og let segia þer: erþú sá sem koma mun, eda eigum ver annars at bída?

21. Enn á þeirre sømu stundu læknade hann marga af sóttum sínum og meinum, og af illum øndum, og mørgum blindum gaf hann syn.

22. Og Jesus svarade og sagde til þeirra: gánged burt og kunngered Johanni, hvad þer hafed sed og heyrt: at blinder siá, hallter gánga, líkþráer hreinsast, dauver fá heyrn, dauder rísa upp, fátækum bodast evangelium.

23. Og sæll er sá sem eigi hneixlast á mer.

24. Enn þá sendebodr Johannis voru burtgengner, hóf Jesus at sega fólkenu af Johanne, hvad fórud þer út í eydemork at siá? eda villdud þer siá reir af vinde skekenn?

25. Eda hvad erud þer útgeng-

ner at siá? villdud þer siá mann í miúkum klædum? siáed: þeir sem í dyrmætum klædum og í vellystingum lifa eru í konunga gørdum.

26. Eda hvad erud þer útfarner at siá? villdud þer siá einn spámann? enn eg seige ydur: þann sem meire er enn spámadur.

27. Þesse er sá, af hverum skrifad er: siá eg sende minn engel fyrer þinu auglite, sá sem tilreida skal þinn veg fyrer þer.

28 Þvíat eg sege ydur: at á medal þeirra sem af kvinnum eru fædder, er eugenn spámadur meire enn Johannes skírare, enn sá meire er í Guds ríke, er hønum meire.

29. Og alt þad fólk sem tilheyrde, og líka tollheimtumenn, rettlættu Gud, og letu skíra sig med skírn Johannis.

30. Enn Pharisei og løgspekingar forsmádu Guds rád í móte siálfum ser, sem letu eigi skírast af hønum.

31. Enn Drottenn sagde: vid hvad skal eg jafna mønnum þessarar kynslódar? hveru eru þeir líker?

32. Børnum þeim eru þeir líker, sem sitia á torge og hrópa hverer til annara, og seiga: ver pípudum fyrer ydur, og þer dønsudud eigi; ver sungum fyrer ydur vor harmakvæde, og þer æptud eigi.

33. Þvíat Johannes skírare kom, át eigi braud, ne drack vín, þó seiged þer: hann hefir diøful.

34. Mannsins sonur er komenn, etur og dreckur, og þer seiged: siáed, sá madur er eiun etare, og víndryckiumadur, vinur tollheimtumanna og bersyndugra.

35. Og spekenn hlytur svo at rettlætast af øllum sínum børnum.

36. Enn einn af Phariseum bad hann, at hann æte med hønum, og hann geck inn í Pharisearans hús, og settest til bords.

37. Og siá, at kona var sú í borgenne, sem bersyndug var, og sem hún visse at Jesus sat til bords í Phariseárans húse, hafde hún þángat alabastur med salve.

38. Og fór á bake til fóta hans, og gret, og tók at væta hans fætur med tárum, og at þurka þá med sínu høfudháre, og kysste á hans fætur, og smurde þær med salve.

39. Enn þá sá Phariseus sá þat, sem hønum baud inn, mællte hann med sier og sagde: ef þesse være spámadur, þá visse hann hver og hvílík være sú kona, sem á hønum tekur, þvíat hún er ein bersyndug kona.

40. Jésus svarade og sagde til hans: Simon eg hefe nockud at seiga þer, enn hann sagde: seig þú meistare.

41. Tveir skuldamenn voru nockurs okurskarls, einn var hønum skulldugur fimm hundrud peninga, enn annar fimmtíge.

42. Og sem þeir høfdu ecki at giallda, gaf hann þeim þad uppbádum. seig nú: hver þeirra mun elska hann meir?

43. Simon svarade og sagde eg meina, sá, þeim hann gaf meira upp; enn hann sagde til hans: þad útskurdader þú rett.

44 Og hann snere ser til kvinnunnar, og sagde til Simonar: ser þú þessa konu? eg geck inn í þitt hús, og þú gafst mer ecke vatn handa mínum fótum, enn þesse vætte mínar fætur med tár-

um, og þurkade med sínu høfudháre.

45. Koss gafstu mer engann, enn þesse, sídann hun geck her inn, hefir hun eigi linnt at kyssa mínar fætur.

46. Mitt Høfud smurder þú eigi vidsmøre, enn þesse smurde mínar fætur med salve

47 Fyrer því seige eg þer, at henne fyrergefast margar synder, þvíat hún elskade míked, enn þeim sem minna fyrergefst, hann elskar midur.

48. Og hann sagde til hennar: þer eru þínar synder fyrergefnar.

49. Þá tóku þeir til, sem vid bordeð sátu hiá hønum, og søgdu med siálfum ser: Hver er þesse, sá sem fyrergefur syndernar?

50 Enn hann sagde til konunnar: Þín trú gerde þig hólpna, far í fride.

## 8. Capitule.

1. Og þat skede efter þat, at hann ferdadest gegnum borger og kauptún, predikande og bodande evangelium af Guds ríke, og þeir tólf med hønum.

2. Og nockorar þær konur, sem hann hafde grædt af óhreinum anndum, og sóttarfellum, sem var Maria, sú sem het Magdalena, frá hverre siø dioflar høfdu út fared.

3 Og Johanna húsfrú Chusa, forstiónarmanns Herodis, og Susanna, og margar adrar, þær hønum veittu af sínum eignum.

4. Enn þá margt fólk var nú samann komid, og þeir skundudu til hans úr stødunum, sagde hann í einne efterlíkingu:

5. Þar geck út einn sádmadur, at sá sínu sæde, og þá hann sáde, fell sumt hiá vegennum, og vard fótrodeð, og fuglar himens átu þat.

6. Og sumt fell á hellu, og þá þat spratt upp, visnade þat, af því þat hafde enga vøkvan

7. Og sumt fell á medal þyrna, og þyrnenn spruttu upp med, og kæfdu þat.

8. Sumt fell í góda jørd, og þat vóx upp, og bar hundradfalldann ávøxt. Þá hann sagde þetta, kallade hann: Hver eyru hefir at heyra, hann heyre!

9. Enn hans lærisveinar spurdu hann at, og søgdu: Hvada efterlíking á þetta at vera?

10. Hann sagde: Ydur er gefid at vita leynda dóma Guds ríkes, enn ødrum í efterlíkingum, svo at siáande, þá siáe þeir eigi, og áheyrande skili þeir eigi.

11. Enn þesse er efterlíkingenn: Sæded er Guds ord.

12. Enn hiner vid vegenn, eru þeir sem heyra, enn efterá kemur dioffullenn, og tekur ordid úr þeirra hiørtum, svo þeir trúe eigi og verde hólpner.

13. Enn hiner á hellunne, eru þeir, sem medtaka ordid med fagnade, þá þeir heyra þat, og hafa eigi rót: um stundarsáker trúa þeir, og á freistingar tíma falla þeir frá.

14. Enn þat sem fell millum þyrna, eru þeir sem þat heyra, og velkiast í sórgum, audæfum og vellystingum þessara lífdaga, og kæfast, og færa engann ávøxt.

15. Enn þat sem í góda jørd fell, eru þeir sem ordid heyra, og hallda því í gódu og sidsømu hiarta, og færa ávøxt í þolinmæde.

16. Enn eingenn kveiker á lið-

seun, og byrger þat med kere, eda setur þat under beck, helldur setur hann þat í kertahöldeu, svo at þeir sem þar inn gánga, siáe liósid.

17. Þvíat ecki er svo hulid, at eigi verde opennbert, og ecki svo leyndt, at eigi kunngerest og kome í liós.

18. Fyrer því gæted at, hvernenn þer heyred. Þvíat þeim, sem hefir, hönum mun gefast, og hver helst eigi hefir, frá hönum mun burt takast, einnenn þat hann meinar sig hafa.

19. Enn móder hans og brædur gengu framm at, og kunnu eigi at komast til hans, fyrer fólkenu.

20. Og hönum var þat undervísad: móder þín og brædur standa þar úte, og vilia siá þig.

21. Enn hann svarade og sagde til þeirra: Mín móder og míner brædur ero þesser, sem Guds ord heyra og gera.

22. Og þat bar til á einum deige, at hann ste á skip med sínum læresveinum, og hann sagde til þeirra: Förum ver yferum siónn, og þeir yttu frá lande.

23. Enn þá þeir fóru yfer um, sofnade hann. Og þar kom hvirfelvindur á siónn, og bilgurnar fellu yfer þá, og þeir voru staddar í störum voda.

24. Þá geingu þeir at hönum og vöktu hann upp, og sögdu: Meistare! meistare! ver forgöngum. Enn hann stód upp, og hastade á vindenn, og á vatnsbylgurnar, og þær sefudust, og þár gerdest logn.

25. Hann sagde til þeirra: Hvar er ydar trú? Enn þeir óttudust, og undrudust, segiande sín á mille: Hver er þesse? Þvíat hann bydur vinde og vatne, og þaug hlýda hönum.

26. Og þeir sigldu þá til bygdar Gadarenorum, hver sem liggur jafngegut Galilea.

27. Og þá hann ste á land, mætte hönum madur nockur úr borgenne, sem haft hafde diosla um lángann tíma, og klæddest eigi fötum, var og eigi í húsum, helldur í dandra manna gröfum.

28 Enn sem hann leit Jesum, hrópade hann og fell nidur fyrer hönum, kallade upp hárre röddu og sagde: Hvad hefe eg med þig at gera, Jesus sonur Guds hins hædsta? Eg beide þig, at eigi kveler þú mig.

29 Því hann baud þeim óhreina anda, at hann fære út af mannenum, þvíat hann hafde um lángan tíma hann kvaled: hann var og bundenn med vidum, og í fiötrum vardveittur; enn at slitnum böndunum, var hann rekenn af dioslenum í eydemörk.

30. Jesus spurde hann at og sagde: Hvert er nafn þitt? Hann sagde: Legion, þvíat marger Dioflar voru í hann farner.

31. Og þeir bádu hann, at eigi skipade hann þeim, at fara í undirdiúped.

32. Enn þar var mikel svínahiörd á vite um fialled, og þeir bádu hann at leyfa ser, at fara í þau, og hann lofade þeim þat.

33. Þá fóru dioflarner út af mannenum, og fóru í svínenn, og hiördenn steypte ser hraparlega í siónn, og dreckrest.

34. Enn sem þeir sáu þat, sem hiördena geymdu, hvad skede, flydu þeir og gengu burt, og kunngerdu þat í borgena og uppá landed.

35 Þá gengu þeir út at siá hvad sked hafde, og komu til Jesu, og fundu mannenn af hverum Diöflarner høfdu útfared, sitiande klæddann og heilvita til fóta Jesu, og þeir urdu hrædder.

36. Enn þeir sem þat høfdu sed, kynntu þeim hvernenn sá diöfulóde var ordenn heilbrigdur.

37. Og allur múgur Gadare norum umliggiande landa bádu hann, at hann vike burt frá þeim, þvíat þeir voru af miklum ótta halldner. Hann ste þá á skip, og snere aftur.

38. Enn sá madur, sem diöflarner voru út af farner, bad hann, at hann mætte vera hiá hønum, enn Jesus let hann frá ser, og sagde:

39. Far heim aftur, og seg hvad mikid Gud veitte þer. Og hann fór og predikade um alla borgena, hvad miked Jesus hafde hønum gert.

40. Þat skede og, þá Jesus kom aftur, at fólkid medtók hann, þvíat aller bidu hans.

41. Og siá, madur kom þar, sá sem Jairus var at nafne, og sá var samkundu húsßins høfdinge. Hann fell til fóta Jesu og bad hann, at hann kæme í hans hús

42. Þvíat hann átte ser einka dóttur nær tólf ára gamla, og hún var at dauda komenn. Og þá hann geck burt, þá þreyngde fólkid at hønum.

43. Ein kona hafde haft blódfall í tólf ár, hver út hafde gefid læknurum sína alla aleigu, og vard þó af engum grædd.

44. Hún geck á bak til, og snart falld hans klæda, og jafnsnart stemdest hennar blódlát.

45. Jesus sagde: Hver er sá, sem mig snerte? Enn þá þeir aller neitudu, sagde Petur og þeir sem med hønum voru, meistare, fólkid þreynger og þiakar at þer, og þú seger: Hver snart mig?

46. Jesus sagde: Einnhver hefir snortid mig, þvíat eg kenne kraft af mer gengenn.

47. Enn þá konan sá, at þat var eigi hulid, kom hún skiálfande, og fell framm fyrer hønum, og kunngerde fyrer øllu fólke, fyrer hvera sök, hún hafde hann snortid, og hversu hún hafde jafnsnart heil ordid.

48. Þá sagde hann til hennar: Verþú glød mín dótter, þín trú hiálpade þer, far í fride.

49. Og þá hann talade enn þetta, kom einn af samkundu høfdingans þenurum, segande hønum: Þín dótter er ondud, ómaka eigi meistarann.

50. Enn sem Jesus heyrde þat, svarade hann hønum og sagde: Hrædstu eigi, trú at eins, þá verdur hún heilbrigd.

51. Og sem hann kom í húsid, leyfade hann eigi nockorum inn at gánga, nema Petro, Jacobo og Johanne, og fødur og módur barnsins.

52. Enn þeir gretu aller, og syrgdu hana. Hann sagde þá: Grátid eigi, þvíat hún er eigi daud, helldur sefur hún.

53. Og þeir dárudu hann, þvíat þeir vissu at hún var látenn.

54. Enn hann rak þá alla út, og tók í hønd hennar, kallade og sagde: Stúlka stattu upp.

55. Og hennar ande kom aftur og hún stód jafnsnart upp. Hann skipade og at gefa henne at eta.

56. Og hennar foreldrum felm: trade vid, enn hann baud þeim eigi at segia nockorum, hvad gerst hafde.

## 9. Capitule.

1. Og hann kallade samann þá tólf sína læresveina, og gaf þeim valld og makt yfer öllum dioflum, og þad þeir læknudu sótter.

2. Og hann sende þá út, at predika Guds ríke, og at græda siúka.

3. Og sagde til þeirra: þer skulud eigi taka med ydur á vegenn, hvorke staf ne tosku, eigi braud ne peninga, og eingenn skal hafa tvo kyrtla.

4. Og í hvert þad hús, sem þer ínngánged í. þá blífed þar, þángat til þer fared burt þadann.

5. Og sá hver, sem eigi medtekur ydur, þá gánged út úr þeim stad, og hristed einnenn dustid af fótum ydrum, til vitnisburdar yfer þá.

6. Og þeir gengu út og ferdudust gegnum kauptún, predikudu evangelium, og læknudu allstadar.

7. Enn allt þad sem skede fyrer hann, kom fyrer fiórdúngshøfdingiann Herodem, og hann vard hræddur, af því at af sumum sagdest, þad Johannes være af dauda risinn.

8. Enn af sumum, þad Elias være auglystur: enn af summum, þad einn af gømlu spámønnum være upp aftur risinn.

9. Herodes sagde: Johannem hefi eg hálshøgged, enn hver er þessi? og hann kystest at siá hann.

10. Postularner komu aftur og sǫgdu hønum frá, hvad mikla hlute þeir høfdu gert, og hann tók þá til sín, og veik burt afsídes í eydemørk, hiá borgenne, sem het Bethsaida.

11. Og þá fólked vard þess vart, ferdadest þad efter hønum, og hann let þá koma til sín, og sagde þeim af Guds ríke, læknade og þá sem þess þurftu.

12. Enn þegar degenum tók at halla, gengu þeir tólf til hans, og sǫgdu hønum: lát folked frá þer, at þad gánge í þaug þorp og kauptún, sem her eru í kring, at þeir kynnu at finna herberge og fædu, því at ver erum her á eydemørku.

13. Enn hann sagde til þeirra: gefed þer þeim at eta. þeir sǫgdu: ver høfum eigi nema fimm braud, og tvo fiska, nema svo se, at ver forum og kaupum fædu svo mørgu fólke;

14. Því þar var nær fimm þusunder manns Hann sagde þá til sinna læresveina: láted þá setiast í lag, fimmtíu og fimmtíu samann.

15. Þeir gerdu svo, og settu sig nidur aller.

16. Þá tók hann þaug fimm braud og tvo fiska, leit til himens, gerde þacker þar yfer og braut sundur, og feck síuum læresveinum, at þeir legdu fyrer fólked.

17. Þeir neyttu, og urdu aller sadder. þar var og uppteked, sem þeim hafde afgenged af leyfunum, tólf karfer.

18. Og þad gerdest, þá hann var einn, og badst fyrer, og hans læresveinar hiá hønum, at hann spurde þá at og sagde: hvern seger fólked mig vera?

19. Þeir svørudu og sǫgdu: þeir seigia þú sert Johannes skírare,

enn adrer, þú sert Elias, enn sumer sega, þad einn af hinum gømlu spámønnum se uppristinn.

20. Hann saade til þeirra: hvern seged þer þá mig vera? Petrus svarade þá og sagde: þú ert Christur Guds.

21. Enn hann hastade á þá, og baud þeim, at þeir segdu þad eigi nockorum.

22. og sagde: Því Mannsins sonur mun enn margt lída, og forsmádur verda af øldungum og skriftlærdum, og høfudprestum, og lífláten verda, og á þridja dege upprísa.

23. Hann sagde til þeirra allra: hver hann vill mer eftersylgia, hann afneite siálfum ser, og take á sig sinn kross hversdaglega og fylge mer efter.

24 Því hver sem sínu lífe vill behallda, hann mun tína því, enn hver sínu lífe tíner minna vegna, hann skal behallda því.

25. Því, hvad gagnar þad manninum, þó at hann hreppe allann heimenn, enn glate siálfum ser, eda skade siálfann sig?

26. Enn hver hann feilar ser mín og minna orda, þess mun Mannsins sonur feila ser, þá hann kemur í dyrd sinne og síns fødurs, og heilagra engla.

27. Og eg sege ydur sannlega, at nockorer af þeim, her standa, skulu eigi smacka daudann, fyrre enn þeir sia Guds ríke.

28. Og þad skede efter þessa rædu, nær átta døgum, at hann tók med ser Petrum, Johannem, og Jacobum, og geck uppá eitt fiall at bidiast fyrer.

29. Og þá hann badst fyrer, vard hans andlits mind ødruvís og hans klæde hvít og skínande.

30. Og sia, at tveir menn tøludu vid hann, hverer voru Moyses og Elias.

31. Þeir opinberdust í birtunne, og tøludu um hans útfør, hvera hann munde fullkomna til Jerusalem.

32. Enn Petur og þeir sem voru med hønum, voru fuller af svefne. Og þá þeir vøknudu, sáu þeir hans dyrd, þá tvo menn hiá hønum standa.

33. Þad vard og, þá þeir skildu vid hann, at Petur sagde til Jesu: Meistare! godt er her at vera, og gerum her upp þriár tialldbúder, þer eina, Moysi eina, og Elie eina, og hann visse eigi hvad hann sagde.

34. Enn þá hann talade þetta, kom eitt ský, og skygde yfer þá. Og þeir óttnudust sem skyed leid yfer þá.

35. Og rødd kom úr skyenu sem sagde: þesse er sonur minn elskulegur, hønum skulud þer hlyda.

36. Og í því at soddann rødd vard, fundu þeir Jesum einsamann. Og þeir þøgdu og søgdu engum nockot frá því; á þeim døgum, hvad þeir høfdu séd.

37. Og þad skede annars dags, þá þeir fóru ofann af fiallenu, at margt fólk rann í móti hønum.

38. Og siá, einn madur á medal fólksins, kallade upp og sagde: Meistare! eg bid þig, siá til sonar míns, því at hann er minn einka sonur.

39. Siá, at Andinn grípur hann, þá emiar hann jafnsnart, og hann hrífur hann svo, at hann frodufeller, og valla skilst hann vid hann, þá hann hefir hrísed hann.

40. Og eg bad þína læresveina,

at þeir ræku hann út, og þeir gátu eigi.

41. Þá svarade Jesus og sagde: ó! þú hin vantrúada og fráhverfa kynslód, hverfu lenge þá skal eg hiá ydur vera og lída ydur? fær þú hingad son þinn.

42. Og þá hann kom til hans: hreif Djöfullenn hann og sleit miög, enn Jesus straffade hinn óhreina Anda, og læknade pilltinn, og feck hann aftur fødur sínum, enn þeim ógnade øllum Guds dyrd.

43. Enn þá aller þeir undruðust þat allt, hvad hann gerde.

44. Sagde hann til sinna læresveina: Taked þessa rædu í ydar eyru, þvíat mannsins sonur mun seliast í manna hendur.

45. Enn þat ord underslódu þeir eigi, og þat var hulid fyrer þeim, svo at þeir skildu þat eigi, og þeir óttuduft at spyria hann at því sama orde.

46. Enn sá þánke kom þeirra á mille, hver þeirra munde meftur vera.

47. Og þá Jesus sá þeirra hiartans þánka, tók hann eitt barn og setti þat hiá ser.

48. Og hann sagde til þeirra: Hver heist sem medtekur þetta barn í mínu nafne, sá medtekur mig, og hver hann medtekur mig, sá medtekur þann, sem mig sende. Enn sá ydar sem minnstur er allra, hann mun mikell verda.

49. Johannes svarade þá og sagde: Meistare, ver sáum einn sem rak diosla út í þínu nafne, og ver vørnudum þess, þvíat hann fylger þer eigi med oss.

50. Jesus sagde til hans: Fyrermuned hønum þat eigi, þvíat hver hann er eigi móti oss, sá er med oss.

51. Enn þat skede þá tíminn fullkomnadest, at hann skyllde takast burt hedann, snere hann sínne ásiónu til at gánga strax til Jerusalem, og hann let sendeboda fara fyrer sínne augsyn.

52. Þeir fóru og komu inn í samverskt kauptún, at útvega hønum herberge.

53. Enn þeir tóku eigi vid hønum, af því hann hafde snúed sínne ásián, at reisa upp til Jerusalem.

54. Enn þá hans læresveinar Jacobus og Johannes sau þat, søgdu þeir; Herra villtu, þá biúum ver sega, at elldur falle af himne, og fortære þeim, líka sem Elias gerde?

55. Enn Jesus snere ser vid, hastade á þá og sagde: Vited þer eigi hvers anda syner þer erud?

56. Mannsins sonur er eigi kominn til þess at fyrerfara sálum manna, helldur þær at frelsa.

57. Og þeir gengu í annad kauptún, og þat skede, sem þeir voru á vegenum, at einn sagde til hans: Eg vil fylga þer efter, hvert helst þú fer.

58. Jesus sagde til hans: Refar hafa holur, og fuglar himens hreidur, enn mannsins sonur, hefir eigi hvar hann mege síno høfdi at halla.

59. Hann sagde þá til eins annars: Fylg þú mer efter, enn sá sagde: Herra, lofa mer fyrst at gánga og grafa fødur minn.

60. Jesus sagde til hans: Lát þá daudu grafa sína daudu, enn þú gack, og boda Guds ríke.

61. Og annar sagde: Herra, eg vil þer efterfylga: enn lofa mer fyrst at sega þeim mína burtfør, sem eru í mínu húsi.

62. Jesus sagde til hans: Hver

sem leggur sína hønd á plógenn, og lítur á bak ser aftur, er eigi hæfelegur til Guds ríkes.

## 10. Capitule.

1. Þar efter útvalde Drottenn og adra siötíu, og sende þá út tvo og tvo fyrer ser, í allar þær borger og álfur, sem hann villde koma.

2. Og sagde til þeirra: Ad sönnu er kornskerann mikel, enn verkmennerner fáer, því bided herrann kornskerunnar, at hann sende verkmenn í sína kornskern.

3. Fared út, sjáed: Eg send ydur svo sem lømb á medal varga.

4. Bered eigi pung, ne tøsku, og eigi skó, heilsed og engum á vege.

5. Hvar þer komed í eitt hús, þá seged fyrst: Fridur se í þessu húsi.

6. Og ef þar er barn fridarens, þá skal ydar fridur hvílast yfer hønum, enn ef eigi er, þá mun ydar fridur snúast til ydar aftur.

7. Blífed í því sama húsi, etid og drecked hvad þeir hafa, því at verdur er verkmadurenn sinna launa. Eigi skulud þer ráfa hús af húse.

8. Og í hvera borg sem þer inngánged, og þeir medtaka ydur, þá eted þat, sem fyrer ydur verdur frammsett.

9. Og læknid siúka, þá sem þar eru, og seged þeim: Guds ríke er nálægt komed ydur.

10. Enn ef þer gánged í nockora borg þar þeir medtaka ydur eigi, gángid út á hennar stræte, og seged:

11. Einnen þat dust sem loddi á oss úr ydvarr borg, hristum ver af á ydur, þó skulud þer vita, at Guds ríki var nálægt ydur.

12. Eg sege ydur þat: Sodoma mun bærilegra verda á þeim dege, enn þeirre borg.

13. Ve þer Corazin, ve þer Bethsaida, því at ef skéd hefdu í Tyro og Sidon soddann furdu verk, sem hiá ydur hafa skéd, hefdu þeir fordum seted í seck og øsku, og gert svo ydran.

14. Þá mun Tyro og Sidone bærelegra verda á domenum, enn ydur.

15. Og þú Capernaum, sem upphafenn ert til himens, munt nidurþrickiast allt til helvítis.

16. Hver ydur heyrer, hann hlýdi mer, og hver ydur forsmáir, hann forsmáir mig, enn hver mig forsmáir, hann forsmáir þann sem mig sende.

17. Enn þeir siötíu komu aftur med fagnade, og sögdu: Herra! þar eru einnenn Diöflar oss undergefner í þínu nafne.

18. Hann sagde til þeirra: Eg sá Satan svo sem elldingu hrapa af himne, sjáed:

19. Eg hefe gefed ydur valld til at stiga uppá høggorma og scorpiona, og allann kraft óvinarens, og ydur mun ecki granda mega.

20. Enn þó skulud þer eigi glediast af þessu, at andarner eru ydur undergefner, helldur glsded ydur af því, at ydar nøfn eru skrifud á himnum.

21. Og samstundis gladdest Jesus í anda, og sagde: Eg prísa þig fader og Drottinn himens og jardar, at þú hulder þetta fyrer spekingum og vitringum, og opinberader þetta smælingum, at so-

nu fader, þvíat svo þocknadest þat þer.

22. Aller hluter eru mer í hendur gefner af mínum fødur, og engenn veit hver sonurenn er nema faderenn, eda hver faderenn se, nema sonurenn, og hverium sonurenn vill þat openbera.

23. Og hann snerest til sinna læresveina, og sagde serdeilislega: Sæl eru þau augu, sem siá, hvad þer siáed.

24. Þvíat eg sege ydur: At marger spámenn og konungar villdu hafa sed, hvad þer siáed, og sáu þat eigi, og heyra, hvad þer heyrid, og heyrdu þat eigi.

25. Og siá, at nockur løgvitringur stód upp, freistade hans og sagde: Meistare, hvad skal eg gera, svo at eg erfe eylíft líf?

26. Hann sagde til hans: Hverienn stendur skrifad í løgmálenu? Hverneun les þú?

27. Hann svarade og sagde: Elska skalltþú Drottenn Gud þinn af ølln hiarta, og af allre aundu, og af øllum mætte, og af øllu hugskote, og náunga þinn sem siálfann þig.

28. Hann sagde þá til hans: Rett svarader þú, ger þat, og munþu lifa.

29. Enn hann villde rettlæta siálfann sig, og sagde til Jesú: Hver er þá minn náunge?

30. Enn Jesus svarade og sagde: Madur nockur fór frá Jerusalem ofann til Jericho, og hrasade bland ræninga, hverer flettu hann klædum, og slóu hann, gengu burt, og leiu hann þar efter halfdaudan liggia.

31. Enn svo bar til óvart, at einn prestur fór ofann sama veg, og þá hann leit hann, geck hann framm hiá hønum.

32. Lika og levitenn, þá hann kom nær þeim stad, og þá hann sá hann, geck hann og framm hiá.

33. Enn einn Samverskur madur ferdadest og kom þángat, og sem hann leit hann, sá hann aumur á hønum.

34. Geck at hønum, og batt um sár hans, hellande í þau vidsmøre og víne, og lagde hann á sinn eyk, og flutte til herbergis, gaf og gætur at hønum.

35. Enn annars dags ferdadest hann burt, og tók upp ivo peninga, og feck húsbúandanum, og sagde: Haf gát á hønum, og hvad hellst þú leggur meira út, þá skal eg borga þer, nær eg kem aftur.

36. Hver þeirra þriggia sýnest þer vera þess náunge, sem hrasadur var bland ræninga? Enn hann sagde: Sá sem miskunseme gerde á hønum.

37. Þá sagde Jesus til hans: Far þú þá og ger slíkt hid sama.

38 Enn þat skede þá þeir ferdudust, at hann geck inn í eitt kauptún. Þar var ein kvinna sem Martha het, hún medtók hann í sitt hús.

39. Og hún átte þá systur er Maria het; hún sette sig fyrer fætur Jesu, og heyrde hans ord.

40. Enn Martha brautst miøg fyrer at þiona hønum. Hún geck at og sagdi: Herra, hyrder þú eigi um þad, at syster mín lætur mig einsama þiona? seg henne, at hún take hende til med.

41. Enn Jesus svarade og sagde til hennar: Martha! Martha! þú ert svo áhyggiusull og mædest í mørgu.

42. Eitt er naudsynlegt, Maria hefir kosid ser þad góda hlutskipte, hvad eigi skal fra henne takast.

## 11. Capitule.

1. Og þad skede, at hann var i nockorum stad, at bidiast fyrer. Og sem hann gaf upp, þá sagde einn af hans læresveinum til hans: Herra! kenn þú oss at bidia, líka sem Johannes kende sínum læresveinum

2. Og hann sagde til þeirra: nær þer bided, seged: Fader vor á Himnum, helgest þitt Nafn; tilkome þitt Ríke; Verde þinn vile svo á jørdu, sem á himne.

3. Gef oss hvern dag vort daglegt braud.

4. Og fyrergef oss vorar syndir, svo sem ver fyrergefum og svo øllum þeim sem syndga mote oss Og leid oss eigi í freistne, helldur frelsa oss fra því íllu.

5. Og hann sagde til þeirra: hver er sá ydar, sem hefir einn vin, og fer til hans um midnætte, og seger hønum: góde vinur, lána mer þriú braud.

6. Þvíat vinur minn er komeun af leid til mín, og eg hefe eigi þad, eg mege framm fyrer hann setia.

7. Og hinn sem fyrer innann er, svarar og seger: ger mer eigi ónád, þvi dyr eru nu luchtar, og børn mín eru í svefnhúsi hiá mer, og eigi get eg uppstaded, at fá þer þau

8. Eg sege ydur: ef hann stendur eigi upp og fær hønum þau, fyrer þad at hann er hans vinur, þá mun hann þó fyrer saker hans leidenlegrar brekunar uppstanda, og fá hønum svo miked, sem hann þarf.

9. Og eg sege ydur einnen: bided, og mun ydur gefast; og leited at, og munud þer finna; knyed á, og mun fyrer ydur uppløked verda.

10. Þvíat hver sem bidur, hann mun ødlast, hver sem leitar, hann finnur, og hver sem ákuyr, fyrer hønum mun upplukast.

11. Enn hvar bidur ydar á medal einn sonur fodurenn um braud, at hann bióde hønum stein þar fyrer? eda bide hann um fisk, at hann bióde hønum einn høggorm fyeer fisk?

12. Eda ef hann bidur um egg, at hann bióde hønum scorpion þar fyrer?

13. Nú med því, at þer sem vonder erud, kunnid gódar giafer, at gefa børnum ydrum, miklu meir, þá mun faderenn á himnum gefa þeim heilagann Anda, sem hann bidia.

14. Og hann rak út disful, þann er mállaus var, og þad skede, þá disfullenn var útfarenn, at hinn mállause talade, og fólked undradest þad.

15. Enn nockorer af þeim søgdu: fyrer Belzebub diøfla høfdinga, þá rekur hann diøfla út.

16. Adrer freistudu hans, og gyrntust af hønum teikn af himne.

17. Enn hann formerkte þá þeirra hugrenningar, og sagde til þeirra: hvert ríke sem í siálfu ser er sundurþyckt, þad mun eydast, og hvert hús mun yfer aanad hrapa.

18. Og ef Andskotenn er í siálfum ser sundurþyckur, hvernig

enn má hans ríke þá standast? fyrst þer segeð mig fyrer Belzebub útreka Dioffla.

19. Og ef eg á fyrer Belzebub Dioffla út á reka, fyrer hvern útreka þá ydar børn þá? fyrer því skulu þeir verda og ydrer dómendur.

20. Enn ef eg rek út Dioffla fyrer Guds fingur, at sønnu kemur þá Guds ríke til ydar.

21. A medan hinn sterki her vopnadi vardveiter sína høll, þá er allt med mak; hvad hann á.

22. Enn þá annar hønum yfersterkare kemur, og yfervinnur hann, þá tekur hann hans harneskiu á hvera hann treyste, og sundurskipter herfangenu.

23. Hver hann er eigi med mer, sá er móte mer, og hver hann dregur eigi samann med mer, sá sunderdreiser.

24. Nær óhreinn ande for út af Manne, ráfar hann um þurra stade, leitar at hvíld og finnur eigi, þá seger hann: eg vil hverfa aftur í hús mitt, hvadan eg for út.

25. Og sem hann kemur, finnur hann þad med vønde sópad og prydt.

26. Þá fer hann og tekur med ser siö adra Anda ser verre, og þá þeir eru þar innkomner, byggia þeir þar, og verdur svo sídann þess Manns hid sídara, verra hinu fyrra.

27. Enn þad skede, sem hann svo talade, hóf nockur kona á medal fólksins upp sína rødd og sagde til hans: Sæll er sá kvidur sem þig bar, og þau briöst sem þú mylkter!

28. Enn hann sagde: ja, sæler eru þeir, sem heyra Guds ord og vardveita þad.

29. Enn þegar fólkid þreyngdest þar framm at, tók hann at sega: Þetta er ein vond kynslód, hún girnest teikn, og henne skal eigi teikn gefast, nema teikn Jonæ spámanns.

30. Því at líka sem Jonas var teikn Ninive borgar mønnum, svo mun Mannsins sonur verda kynslód þessare.

31. Drottningenn af Sudre mun gánga upp fyrer dómenn, med mønnum þessarar kynslódar, og fordæma þá; því at hún kom af ytstum endemorkum veralldar, at heyra speke Salomonis. Og siáed! Her er meiri enn Salomon.

32. Menn Ninive borgar munu uppgánga fyrer domenn med þessare kynslód, og munu hana fordæma; því at þeir gerdu Jdran efter predikan Jonæ, og siáid! Her er meir enn Jonas.

32. Eingenn tendrar liós, og setur þad í leyne, eda under mæleask, helldur í liósastiakann, svo at hver sem inngeingur siáe liósid.

34. Augad er Liós Líkamans, því ef þitt auga er einfalldt, svo er þinn líkame allur skær; enn ef auga þitt er skrákur, þá er einnenn þinn líkame myrkur.

35. Því siá svo til, at liós þad, sem í þer er, se ei myrkur.

36. Þegar líkame þinn er allur skær, svo hann hefir eigi nockurn part af myrkrenu, svo blifur hann allur skær, og mun upplysa þig, svo sem ein skær leiptran.

37. Og sem hann var slíkt at mæla, þá bad hann nockur Phariseus, at hann æte middagsverd

hiá ser; han geck inn og sette sig til bords.

38. Enn þá Phariseaeenn sá þád, undradest hann, at hann þvode ser eigi fyrer máltídena.

39. Enn Drottenn sagde til hans: Þer Pharisei hallded hid ytra hreinum bikurum og fötum, enn ydart hid innra er fullt med ráne og illsku.

40. Þer heimsker! Sá sem ger= de hid ytra, gerde hann eigi þad hid innra?

41. Gefid þó ølmosu af því, sem þar er, og siá, þá er ydur þad allt hreint.

42. Ve ydur Phariseis sem tíunded myntu og ruthu, og allt kálgresi, og sneided hiá dóme og Guds kærleika; þetta byriar at gera, enn hitt eigi efter at skilia.

43. Ve ydur Phariseis, sem giarnan sited efst í samkundu husum, og viled fá kvediur á tor= gum.

44. Ve se ydur skriftlærdum, og Phariseis, þer hræsnarar, því þer erud sem huldar grafer framm= lidenna, yfer hverium menn gánga, og þeckia þær eigi.

45. Þá svarade nockur skrift lærdur, og sagde til hans: Mei= stare, med þessu orde smánar þú og svo oss.

46. Enn hann sagde: og ydur skriftlærdum se einnenn ve, því þer þiáed menn med byrdum, sem þeir geta eigi bored, og þer snerted þær eigi einum fingre.

47. Ve ydur, þvíat þer upp= bygged spámanna grafer, enn fed= ur ydrir líflidu þá.

48. At sønnu þá vitned þer þad, og samsinned svo verkum ydarra fedra, þvíat þeir aflífudu þá, enn þer uppbygged leide þeirra.

49. Fyrer því seger spekenn Guds: eg vil senda til þeirra spámenn og postula, og suma af þeim munu þeir deyda og offsæka.

50. Svo at krefest af þessare kynslód blód allra spámanna, þad úthellt hefir verid, frá grundvallan veralldar.

51. Allt frá blóde Abels, og til blóds Zacharie, sem deyddur var í mille Alltaris og Musteres= ins. Já, eg sege ydur, at þad mun krefiast af þessare kynslód.

52. Ve se ydur skriftlærdum, því þer bered lykel vitskunnar, enn komed þó eigi siálfer þar inn, og hamled þeim sem þar vilia inn= gánga.

53. Enn þá hann hafde þvílíkt til þeirra talad, tóku Skriftlær= der til og Pharisei þúnglega at þreynga at hønum. og vølsam= lega hann at mørgu atspyria.

54. Veitande hønum umsátur, og leitudu vid at jaga þad nockud af hans munne, sem þeir mættu hann um kilia.

## 12. Capitule.

1. Þá þuste fólked at, og þar komu margar þúsunder til sam= ans, svo at hver under tród annann: þá hóf hann upp og sagde til sinna lærsveina: vakted ydur fyrer súrdeige Phariseorum, hvad at er hræsne.

2. Þvíat ecki er svo hulid, at eigi skule verda aupliósst, ne nockud svo leyndt, at menn skulu eigi fá at vita.

3. Fyrer því, hvad þer seged í myrkrum, þad mun í liósi heyrast, og hvad þer í Svefnhús= um hvísled í eyra, mun á ræfr= um uppe predikad.

4. Enn eg sege ydúr vinum mínum: hrædest eigi þá, sem líkaman aflífa, og efter þad fá þeir eigi meira atgert.

5. Enn eg vil sýna ydur hvern þer skulud hrædast: hrædest þann, sem efter þad hann hefir líflátad, hefir makt til at kasta í Helvíte. Já, sege eg ydur: þá hrædest þann.

6. Seliast eigi fimm skógar þrester fyrer tvo peninga, og samt er einn af þeim eigi gleymdur fyrer Gude.

7. Svo eru og øll høfudhár ydar talenn; fyrer því skulud þer eigi óttast, þvíat þer erud dýrre enn marger skógar-þrester.

8. Enn eg sege ydúr: hver hellst hann vidurkenner mig fyrer mønnum, þann mue Mannsins sonur vidurkenna fyrer englum Guds.

9 Enn hver, hann afneitar mer fyrer mønnum, hønum mun afneitad verda fyrer Guds Englum.

10. Og hver sem talar ord gegn Mannsins syne, þá mun hønum þad fyrergefast; enn hver hann hæder heilagann Anda, hønum skal þad eigi fyrergefast.

11. Enn nær þeir leida ydur inn í samkunduhús, og fyrer valldid þeirra megiugu, þá vered eigi hugsiúker, hverneun eda hveru þer skulud svara, eda hvad þer skulud sega,

12. Þvíat heilagur Ande mun fræda ydur á sømu stundu, hvad ydur byriar at segia.

13. Þá sagde einn af fólkenu til hans: Meistare, seg bródur mínum, at hann skipte vid mig arfenum.

14. Enn hann sagde hønum: þú madur, hver sette mig fyrer dómara, edá arfskiptismann yfer ydur?

15. Og hann sagde til þeirra: ſiáed til, og vared ydur vid ágyrne, þvíat engenn lifer þar af þad hann hafe mikel audæfe.

16. Og hann talade þá eina efterlíking til þeirra, og sagde: Audugur madur nockur var sá, hvers akur fært hafde ávoxt.

17. Hann huxgde med ser og sagde: hvad skal eg til gera? eg hefe ecke þad, hvar eg mege mínum ávexte í safna.

18. Og sagde: Þat vil eg gera, eg vil nidurrífa mína hlødu, og gera upp adra meire, og safna þángat øllu því, sem mer hefir gróed, mínum audæfum.

19. Og þá mun eg sega til sálu minnar: Sála mín, þú hefir mikenn forda í mørg ár, hvíl þig nú, et og dreck, og vert glød.

20. Enn Gud sagde til hans: Þú dáre, á þessare nóttu munu þeir þína sál af þer krefa, hvers verdur þat þá, sem þú hefir tilreidt?

21. Svo gengur til fyrer þeim sem draga siód samann, og eru eigi í Gude ríker.

22. Þá sagde hann til sinna læresveina: Fyrer því sege eg ydur, stúred eigi fyrer ydru lífe, hvad þer skulud eta, og eigi fyrer lykama ydrum, þveru hann skule klædast.

23. Lífid er meira enn fædann, og líkamenn meire enn føtenn.

24 Hyggid at hrøfnunum, þeir sá hverke, ne uppskera, eigi hafa þeir hlødu ne kiallara, og samt fæder Gud þá. Miklum mun betre erud þer þó fuglunum.

25. Enn hver ydar fær med

sinne húgsyke! aukid stærd sína um eina álnar-leingd?

26. Nú ef þer orkid eigi hins minsta, hvar fyrer stúred þer þá fyrer hinu ødru?

27. Hugleided liliurnar á mørkenne, hvernenn þær vaxa, þær vinna eigi ne spinna, enn eg sege ydur: at Salomon í allra sinne dyrd var eigi svo skryddur, sem ein af þeim.

28. Nú fyrst Gud skryder svo þat gras sem í dag er á akre, og á morgun verdur í ofnenn láted, miklu meir mun hann þá klæda ydur, ó þer líteltrúader?

29. Þar fyrer og svo þer, hyrded þar eigi um, hvad þer eted eda drecked, og hefed ydur eigi hátt.

30. Þvíat efter þessu øllu sœka heidingar í verølldenne, enn fader ydar veit vel, at þer þurfid þessa vid.

31. Því leited fyrst Guds ríkes, og mun ydur þá þetta allt tilfalla.

32. Hrædest eigi þú litla hiørd, þvíat þat þocknast fødur ydrum at gefa ydur ríked.

33. Seled hvad þer hafed, og gefed ølmøsu; gered ydur og þá sicke, sem eigi elldast, og þann siód sem eigi minkar á himnum, at hverum þiófar fá eigi komest, ne melur eted.

34. Því hvar ydar fesiódur er, þar mun og ydart hiarta vera.

35. Láted ydar lendar umgyrdtar vera, og ydart liós loga.

36. Og vered líker þeim mønnum, sem bída efter sínum lánardrottne, hvenær hann muni aftur koma af brullaupum, svo at þá hann kemur og ber, se strax fyrer hønum upploked.

37. Sæler eru þeir þiónar, hvera Herrann finnur vakande, þá hann kemur. Sannlega sege eg ydur, þat hann mune uppstytta sig, og seta þá til bords og gánga fyrer þeim og þióna þeim.

38. Og ef hann kemur á annare vakt, eda á hinne þridu vakt, og finnur þat líka svo: sæler eru þeir þiónar.

39. Enn þat skulud þer vita, at ef húsbondenn visse á hverre stundu þiófurenn kæme, þá vekte hann, og lete eigi grafast i sitt hús.

40. Fyrer því vered þer og reidubúner, þvíat mannsins sonur mun á þeirre stundu koma, sem þer ætled eigi.

41. Þá sagde Petur til hans: Herra, seger þú þessa efterlíking til vor, eda til allra?

42. Enn Drottenn sagde: Hvad mikels er verdt um trúann og forstálann hússtiornarmann, hvern hans herra setur yfer sitt heimkynne, at hann gefe þeim i rettann tíma, þat sem þeim ber?

43. Sæll er sá þiónn, hvern hans herra finnur svo gerande, þá hann kemur.

44. Sannlega sege eg ydur, þat hann mun setia hann yfer allt sitt gods.

45. Enn ef sá same þión seger í hiarta sínu: Herra minn gerer døøl á at koma, og tekur at beria vinnumenn og ambátter, og at eta og drecka, og sig druckenn at gera.

46. Þá mun herrann þess þións koma á þeim dege sem, hann þeinker eigi, og á þeirre stundu sem hann veit eigi og hann mun høggva hann

í sundur, og leggia hønum sín laun med ótrúum.

47. Enn hver sa þiónn sem veit síns herra vilia, og bió sig eigi til, gerde og eigi efter hans vilia, hann mun líða mørg høgg.

48. Enn hver sa eigi veit, og gerer þat hegníngar se verdt, hann mun meire hirting fá, þvíat þeim sem mikid er veitt, af hønum æskist mikid, oa hverium mikid verdur í hendur sellt, af hønum heimtist mikid.

49. Eg em komenn at kveika upp elld á jørdu, hvad villde eg helldur, enn hann brynne nú þegar?

50. Enn eg hlyt ádur med skírn at skírast, og hversu eg þreingist þángat til hún fullkomnast.

51. Meined þer, at eg kæme at senda frid á jørdu? Eg seige, nei, helldur sundurþyckn.

52. Þvíat hedann í frá munu fimm verda í einu húsi sundurþycker, þrír móte tveimur, og tveir móte þremur.

53. Faderenn mun verda móte synenum, og sonurenn móte fødurnum, og módurenn móte dotturenne, og dotturenn móte módurenne, og módur mannsins móte sonarkonunne, og sonarkonann móte módur mannsins.

54. Enn hann sagde til fólksins: Hvenær þer siáed ský uppgánga í vestre, þá seged þer jafnskiótt, at regn kome, og þat sker svo.

55. Og nær þer siáed sunnanvind blása, þá seged þer hita verda, og þat sker.

56. Þer hræsnarar, ásynd himens og jardar kunned þer at prófa.

57. Enn því prófed þer eigi þennann tíma? eda fyrer því dæmed þer eigi á siálfum ydur, hvad rettvíst er?

58. Enn nær þú gengur med þínum søkudólg fyrer høfdingiann, þá kosta kapps á vegenum, at þú losir þig frá hønum, at eigi drage hann þig fyrer dómarann, og dómarenn sele þig ressaranum, og ressarenn kaste þer svo í dyblissu.

59. Eg segi þer, at eigi munþu komast út þadann, þar til þú borgar, einnenn hinn sídasta skarf.

## 13. Capitule.

1. Enn í þann sama tíma voru þar nockorer vid, sem kunngerdu hønum frá þeim í Galilea, hver ra blóde Pilatus hafde blandad vid þeirra fórner.

2. Jesus svarade og sagde til þeirra: meined þer, at þesser Galilei værn fyrer øllum Galileis synduger, þóat þeir þyldu þetta?

3. Eg segi nei, helldur ef þer gered eigi idran, þá fyrerfarest þer líka aller eins.

4. Eda meined þer, at þeir átián, á hvera turnenn í Silo hrapade og drap, hafe sakader vered framar øllum mønnum, sem búa í Jerusalem?

5. Eg sege ydur nei, helldur ef þer gered eigi idran, munud þer einnenn aller svo fyrerfarast.

6. Og hann sagde þeim þessa efterlíking: Þar hafde einn eitt fíkiutre plantad í sínum víngarde, hann kom og leitade ávaxtar á því, og fann eigi.

7. Þá sagde hann til víngardsmannsins: siá, nú í þriú ár hefi

eg árlega komid og leitad ávaxtar
af þessu fíkiutré, og fundeð eigi,
högg þad því af, hvar til hindrar
þad gardlended?
8. Enn hann svarade og sagde
til hans: herra, losa því at stan-
da þetta ár, þar til eg gref um
þad, og læt at myke.
9. Ef þad villde svo ávöxt færa:
enn ef eigi, þá högg þad eftirá
af.
10. Og hann kende í einu af
samkundu húsunum á sabbaths-
dege.
11. Og sjáed, at þar var ein
kona, sem hafde kránkleiks anda í
átján í ár, og hún var biúg, og
öldungis eigi gat hún upplited.
12. Enn þá Jesus leit hana,
kallade hann hana til sín og sagde
til hennar: Þú kona! vert laus
af krankdæme þínu.
13. Og lagde hendur yfer hana.
Og jafnskiótt reiste hún sig upp og
dyrkade Gud.
14. Þá svarade yfermadurenn
samkunduhússins, og þycktest vid,
at Jesus læknade á sabbathsdege,
og sagde til Lydsins: sex dagar eru
þeir á hverum hæfer at vinna,
komed þer á þeim at láta lækna
ydur, enn eigi á sabbathsdege.
15. Drottenn svarade honum
og sagde: Þú hræsnare! leyser
eigi hver einn ydar á sabbaths-
dege naut sitt og asna fra stall-
enum, og leider til vatns?
16. Enn skyllde þesse eigi leysast
á sabbathsdege, sem þó er Abra-
hams dótter, af því bande, med
hveru Andskotenn hefir hana fiötrad
í átian ár?
17. Og sem hann sagde þetta,
skömmudust sín aller hans mótmæ-
lendur, og allt fólked gladdest yfer
þeim öllum dyrdarverkum, sem af
honum gerdust.
18. Og hann sagde: hverium er
Guds Ríke líkt, og hveriu skal eg
því samiafna?
19. Líkt er þad mustards korne,
hvert Madur tók og varpade í
grasgard sinn, þad spratt upp
og vard miked tre, og fuglar
Himens bigdu undir þess kvist-
um.
20. Og enn sagde hann: hveriu
skal eg samlíkia Guds Ríke?
21. Líkt er þad surdeyge því,
sem kona tók og falde medal þrigga
mælera miöls, þar til þad syrdest
allt.
22. Og hann geck gegnum bor-
ger og kauptún, og kende og gerde
sína reisu til Jerusalem.
23. Enn þar sagde nockur til
hans: herra, meinar þú eigi, at
þeir sen fáer sem hiálpast? enn
hann sagde til þeirra:
24. Kergest efter inn at gánga
um hid þraunga hlided, þvíat
marger (þad sege eg ydur) munu
sæka til, þar inn at ganga, og fá
eigi getad.
25. Fra því húsbondenn er upp-
stadenn, og hefir dyrnar aftur-
lúcktar, þá munu þeir taka til
þar fyrer utann at standa, og á
dyrnar at knya, svo segande:
Herra! herra! lúk þú upp fyrer
oss. Hann mun svara og sega
til ydar: Eigi þecke eg ydur,
hvadann erud þer?
26. Þá munud þer hefia upp
at sega: Ver höfum etid hiá þer,
og druckid, og á strætum vorum
kender þú.
27. Enn hann mun sega: eg
sege ydur, þad eigi þecke eg ydur,
hvadann þer erud, fared frá mer,
aller, þer íllgerdamenn.

28. Par mun vera óp og tannagnystran. Nær þer siáed Abraham, Isaac og Jacob og alla spámenn í Guds Rike, at þer erud útrekner.

29. Og þeir úr austre og vestre, nordre, og sudre, munu koma, og til bords sitia í Guds Rike.

30. Og siáed, þar eru þeir sídarster sem verda munu fyrster, og þeir sem eru fyrster, munu verda sídarster.

31. A þeim sama dege gengu nockorer af Phariseis inn og sögde hönum: Vík þú burt og gack hedann, þvíat Herodes vill aflífa þig.

32. Hann sagde til þeirra: Fared þer og seged þeim ref: Siáed at eg rek út Diöfla, og lækna í dag og á morgun, enn á þridia dege mun eg taka enda.

33. Þó mun eg gánga í dag og á morgun, og dagenn þar efter, þvíat þad fær eigi skeed, at nockur spámadur farest utann í Jerusalem.

34. Jerusalem, Jerusalem, þú sem aflífar spámennena, og grýter þá steinum, sem til þín verda sender, hversu oft hefi eg vilad samannsafna börnum þínum, líka sem hæna sínum ungum, under vænge ser, og þer hafed eigi vilad?

35. Siáed! ydart hús skal ydur því eydeláted verda, því eg sege ydur, ad eigi munud þer mig siá, þar til þad kemur, at þer munud sega: Lofadur se sá sem kemur í nafne Drottins!

## 14. Capitule.

1. Og þad skede, at hann kom á sabbathsdege inn í hús nockors þess, sem var yferbodare Phariseorum, brauds at neyta, og þeir höfdu vörd á hönum.

2. Og siá, at madur nockur, sá vatnsótt hafde, var þar framme fyrer hönum.

3. Og Jesus ansade og sagde til Lögspekinga, og Phariseanna, svo segande: Er þad nockud rett, at lækna á sabbathsdögum? Enn þeir þögdu vid.

4. Hann tók þá á hönum, og læknade hann, og let burtfara.

5. Svarade og sagde til þeirra: hver er sá medal ydar, hvers uxe edur asne sem fellur í brunn, at hann eigi jafnsnart drage, hann upp á sabbathsdege?

6. Og þeir gátu hönum engu þar til svarad.

7. Enn eina efterlíking sagde hann til bodsmannanna, þá hann formerkte, hvernenn þeir útvöldu efst at sitia, og hann sagde til þeirra:

8. Nær þú verdur bodenn af nockorum til brúdkaups, þá set þig eigi efst, kann ske, at einn heidarlegre, enn þú, se bodenn af hönum.

9. Og kome sá sem þer baud og hönum, og segi til þín: gef þessum rúm, og hlióter þú þá med kinnroda at halda hinn ysta sess.

10. Helldur nær þú verdur bodenn, þá far og set þig nedst, svo at nær sá kemur, sem þer baud, sege hann til þin: Vinur, þoka þer upp betur, og svo mun þer veitast heidur fyrer þínum Sessunautum.

11. Þvíat hver sig siálfur upphefur, hann mun nidurlægast, og hver sig siálfur nidurlækkar, hann skal upphefast.

12. Hann sagde til hans, sem hønum hafde bodid: Nær, þú helldur middags verd eda kvølldmáltíd, þá skalltþú eigi bióda vinum þínum ne brædrum, eigi frændum þínum ne nágrønnum þeim sem ríker eru, at eigi bióde þeir þer heim til sín aftur ein hvern tíma, og se þer þá endurgolldeð.

13. Helldur nær þú gerer heimbod, þá bióð fátækum, vønudum, hølltum og blindum.

14. Þá erþu sæll, þvíat þeir hafa eigi til þer aftur at lúka, enn þad mun þer endurgollded verda í upprisu rettlátra

15. Enn þá þetta heyrde einn af þeim sem til bords sat, sagde sá til hans: sæll er sá madur, sem etur braud í Guds Ríke.

16. Enn hann sagde til hans: nockor madur var sá: sem gerde mikla kvølldmáltíd, og band mørgum til hennar.

17. Og sende út sinn Þión um kvøllds máls tímann, at hann segde bodsmønnunum: komed, þvíat allt er nú reidúbúed.

18. Enn þeir tóku þá aller til, hver efter annann, at afsaka sig. Hinn fyrste sagde til hans: Akur keypte eg, og mun eg fara út, at siá hann; eg bid þig, afsaka mig.

19. Og annar sagde: fimm pør uxnyta keipte eg, og fer eg nú út, at skoda þau; eg bid þig afsaka mig.

20. Hinn þridi sagde: Konu hefe eg mer festa, fyrer því kann eg eigi at koma.

21. Og Þiónustumadurenn kom, og undervísade þad sínum herra aftur. Þá vard Húsbóndenn reidur, og sagde til síns Þións: far snarlega út á stræte og götur borgarennar, og leid volada, vanada, hallta og blinda hingat inn

22. Og Þiónnenn sagde: herra! þad er gert, hvad þú skipader, og þó er enn nú rúm.

23. Og herrann sagde til Þiónsins: far þú út á þiódbranter, og um túngarda, og naudga þeim her inn at koma, svo mit hús verde fullt.

24 Enn eg sege ydur þad, at eingenn þeirra manna, sem bodner voru, munu smacka mína kvølldmáltíd.

25. Enn margt folk geck med hønum, og hann snere ser vid, og sagde til þeirra:

26. Ef nockor kemur til mín og hatar eigi fødur sinn og módur, konu og børn, brædur og systur, og þar til sitt eged líf, hann fær eigi minn læresveinn verid.

27. Og hver hann eigi ber sinn kross og fylger mer efter, sá getur eigi minn læresveinn verid.

28. Því hver er sá á medal ydar, sem turn vill uppbyggia, og sitiur eigi ádur og samanreiknar kostnadenn, hvert hann hefir at fullkomna þad med?

29. Svo at ef hann leggur grundvøllenn, og getur ecki fullkomnad, munu þá eigi aller, þeir sem þad siá, taka at dára hann.

30. Og segia: þesse madur tók at byggia, og getur eigi vidlokid.

31. Eda hver konungur gengur út at hallda orustu gegn ødrum konunge: sitiur hann eigi ádur og huxar um med ser, hvert hann geti med tíu þúsundum mætt hønum, sem med tuttugu þúsundum kemur móte hønum?

32. Enn ef eigi, þá sender hann bodskap út, þá þegar hinn er þó fiarlægur, og bidur fridar.

33. Svo og líka ser hver ydar, sem eigi afseger øllu því hann á, fær eigi minn læresvein verid.

34. Salltid er godt, enn ef salltid dofnar, med hveru krydded þer þá?

35. Þvíat þad er þá hverke á tún-jørd ne tadhauga þarflegt, helldur verdur því útvarpad. Hver eyru hefir at heyra, hann heyre.

## 15. Capitule.

1. Enn aller tollheimtumenn og bersyndunger nálægdust hann, at heyra hann.

2. Og Pharisei og skriftlærder møglndu, og søgdu: Þesse medtekur synduga, og etur med þeim.

3. Enn hann sagde þessa eftirlíking til þeirra og sagde:

4. Hver er sá medal ydar, sem hefir hundrad saude, og ef hann týner einum af þeim, at hann láte eigi efter þá níu og niutíu í eydemørku, og fer efter þeim sem týndest, þángat til hann finnur hann?

5. Og nær hann hefir hann funded, leggur hann þánn upp med fagnade ser á herdar.

6. Og þá hann kemur heim, kallar hann samann sína vine og nágranna, og seger til þeirra: Gledest med mer, þvíat eg hefe minn saud aftur fundid, sem tapad ur var.

7. Eg sege ydur: At líka svo mun føgnudur verda á himnum yfer einum syndugum, þeim sem idran gerer, meir enn yfer þeim níu og níutíu rettlátum, sem eigi þurfa yferbótar vid.

8. Eda hver er sú kona sem hefir tíu peninga, og ef hún týner einum þeirra, kveiker hún eigi liós, og sópar húsid og leitar vandlega, þar til hún finnur hann?

9. Og nær hún hefir funded hann, samankallar hún eigi vinkonur sínar og grandkonur, og seger: Samgledest med mer, þvíat eg hefe minn penning aftur funded, hverum eg hafde týnt.

10. Líka svo sege eg ydur, at føgnudur mun vera fyrer englum Guds, yfer einum syndugum, sem idran gerer.

11. Og hann sagde: Nockur madur hafde tvo syne.

12. Og hinn yngre af þeim sagde til fødur síns: Gef mer, fader! þá deilld af gótsenu sem mer ber, og hann skipte med þeim gótsenu.

13. Og skømmu þar efter, þá dró hinn yngre sonur allt til samans og reiste lángt burt úr lande, og forrærdi þar sínu góðse í eydslulegum lifnade.

14. Og þá hann hafde nú øllu sóat, þad hann átte, gerdest mikel dyrtíd í øllu því sama lande. Svo hann tók at skorta.

15. Hann fór og hellt til hiá einum borgara þar í landenu, sá sendi hann út á sinn akur, at hann gætte svína.

16. Og hann gyrntest at sedia sinn maga af drafe því, sem svínenn átu, og eingenn gaf hønum þat.

17. Þá þeinkte hann med ser, og sagde: Hvad marga daglaunamenn hefir minn fader? Þeir sem hafa nægd á brande, enn eg ferst í húngre.

18. Því skal eg uppstanda og fara til fødurs míns, og sega til hans: Fader! eg syndgade í himenenn og fyrer þer.

19. Því eg em eigi framar meir verdugur at kallast þinn sonur, ger mig því, sem einn af þínum daglaunamønnum.

20. Hann reis upp, og kom til fødur síns. Og þá hann var enn lángt burt þadann, leit faderinn hann, og sá aumur á honum, hlióp at, og fell um háls honum, og kyste hann.

21. Enn sonurenn sagde til hans: Fader, eg syndgade í himenenn, og fyrer þer, og því em eg nú eigi verdugur at kallast þinn sonur.

22. Enn faderenn sagde til þióna sinna: Bered hingat hinn besta klædnad, og færed hann í, og gefed hring á hans hønd, og skó á hans fætur.

23. Sæked alinn kálf og slátred, og neytum og verum kátar.

24. Þvíat þesse minn sonur var daudur, og er endurlifnadur, hann týndest, og er nú fundenn. Og þeir tóku at glediast.

25. Enn hinn elldre sonur hans var á akre, og þá hann kom og nálægdest húsid, heyrde hann kvedskap, og dansleike.

26. Og kallade einn af þiónustumønnunum til sín, og spurde, hvad þetta være.

27. Sá sagde: Bróder þinn er komenn, og fader þinn slátrade øldum kálfe, at hann feck hann heilann aftur.

28. Enn hann reiddest vid, og villde eigi inngánga, þá geck fader hans út og bad hønum.

29. Enn hann svarade og sagde til fødur síns: Siá, svo mørg ár þióna eg þer: og hefe alldrei enn yfertroded þín bodord, og þú gafst mer enn alldrei kid, svo at eg mætti med vinum mínum gladur vera.

30. Enn nú þesse þinn sonur er komenn, sá sem hafde svælt sínu gótse med hórum, þá slátrader þú hønum alenn kálf.

31. Enn hann sagde hønum: Sonur minn, þú ert jafnann hiá mer, og allt hvad mitt er, þád er þitt.

32. Því ætter þú nú at vera kátur, og fagna, því þesse þinn bróder var daudur og endurlifnade, hann týndest og er aftur fundenn.

## 16. Capitule.

1. Enn hann sagde til sinna læresveina: Audugur madur nockur var sá, sem ser hafde rádsmann, og sá vard rægdur vid hann, at hann hefde fargad hans góðse.

2. Og hann kallade hann til sín, og sagde til hans: Því heyre eg þetta um þig? Ger reikningsskap þinnar rádsmensku, þvíat þú mátt eigi hedan af rádsmensku hafa.

3. Enn rádsmadurenn sagde med siálfum ser, hvad skal eg tilgera, med því minn herra svipter mig embættenu? Eg get eigi grafed, enn eg skammast mín at bidia.

4. Eg veit vel, hvad eg skal gera, nær eg verd embættenu afsettur, svo at þeir medtake mig í sín hús.

5. Og hann kallade til sín alla skulldamenn síns herra, og sagde til hins fyrsta: Hversu mikid er þú skylldugur mínum herra?

6. Hann sagde: Hundrad tunnur viðsmørs. Hann sagde þá til

hans: Tak þitt bref, set þig og skrifa strax fimmtíu.

7. Efter þat sagde hann til hins annars: Enn, erþu mikid skylldugur? Sá sagde: Hundrad mælera hveites. Þá sagde hann til hans: Tak þitt bref og skrifa áttatíge.

8. Og herrann lofade þann ránglátaj rádsmann, at hann hafde svo forstálega gert, þvíat børn þessarar veralldar eru kænare børnum liósins í sinne kynslód.

9. Og eg segeydur: Gerid ydur vine af hinum rángláta mammon, svo nær þer vidþurfed, at þeir medtake ydur í eylífar tialld búder.

10. Hver trúr er í minnstu, sá er trúer í miklu, og hver rángsnúenn er í því minnsta, hann er rángsnúenn í miklu.

11. Þvíat ef þer erud eigi trúer í hinum rángferduga mammon, hver vill trúa ydur þá til þess sem sannarlegt er?

12. Og ef þer erud eigi trúer í annarlegu, hver mun gefa ydur þá hvad ydart er?

13. Eingenn heimilis þiónn getur tveimur herrum í senn þiónad, utann hann annadhvert hate þann eina, og elske hinn annann, eda þydest þann eina og forsmáe hinn annann: þer getid eigi Gudi þiónad og mammon.

14. Enn þeir Pharisei heyrdu allt þetta, sem ágiarner voru, og dárudu hann.

15. Þá sagde hann til þeirra: Þer erud þeir, sem ydur rettlæted siálfer fyrer mønnum, enn Gud þecker hiartu ydar, þvíat hvad hátt er hiá mønnum, þat er svivirdelegt fyrer Gude.

16. Løgmáled og prophetarner spádu allt til Johannem, enn uppfrá þeim tíma predikast Guds ríke fyrer evangelium, og ser hver madur þreynger ser þar inn med magt.

17. Enn lettfelldara er at himenn og jørd forgánge, enn einn titill af løgmálenu falle.

18. Hver sína egenn konu forlætur, og kvongast annare, sá drýgir hór; og hver sem kvongast þeirre, sem frá manne er skilenn, hann drýgir og svo hór.

19. Nockur madur ríkur var þar, sem klæddest med purpura, og kostulegum línklædum, og lifde hverndag kostulega og í glede.

20. Enn þar var einn fátækur madur, sem Lazarus var at nafne, hver úte lá fyrer hans dyrum fullur kauna.

21. Og hann girntist at sedia sig af þeim molum, sem fellu af bordum hins ríka. Þar komu og hundar og sleiktu hans sár.

22. Enn svo vard, at hinn volade dó, og var borenn af englum í skaut Abrahams. Hinn ríke dó líka, og vard jardadur.

23. Og sem hann var nú í helvíte og kvølunum, þá hóf hann upp sín augu, og leit Abraham lángt burt, og Lazarum í hans skaute.

24. Þá hrópade hann og sagde: Fader Abraham, miskunna mer og send Lazarum, at hann drepe hinu fremsta síns fíngurs í vatn, og kæle túngu mína, þvíat eg kvelst þunglega í þessum loga.

25. Enn Abraham sagde: Hugleid þú sonur, at þú medtókst þitt góda í lífstíd þinne, og Lazarus þar í mót medtók hid vonda. Enn nú verdur hann huggadur, enn þú píndur.

26. Og frammyfer allt þetta, er í mille vor og ydar miked diúp stadfest, svo at þeir sem vilia hedann fara nidur til ydar, geta þad eigi, og þeir eigi þadann frá ydur upp híngat til vor fared.

27. Þá sagde hann: þá bid eg þig fader, at þu sender hann í míns födurs hús.

28. Þvíat eg hefe fimm brædur, at hann kunne at vitna fyrer þeim, svo at eigi kome þeir og svo í þennann kvalastad.

29. Abraham sagde til hans: þeir hafa Moysen og spámennena, heyre þeir þeim.

30. Enn hann sagde: nei, fa der Abraham, helldur ef einn frammlidenna fære til þeirra, þá mundu þeir betra sig.

31. Hann sagde honum: ef þeir hlyda eigi Moysi og spámönnunum, þá munu þeir og eigi helldur trúa, þó nockur af dauda uppríse.

## 17. Capitule.

1. Og hann sagde til sinna læresveina: ómögulegt er, at þar skylldu eigi koma hneixlaner. Enn ve þeim fyrer hvern þær koma.

2. Þarfara være honum, at kvarnarsteinn hengdest um háls honum, og være honum í sió kastad, enn at hann hneixle einn af þessum smælingum.

3. Vakted ydur, ef brodur þinn brytur vid þig, þá átel hann, og ef hann idrast, þá fyrergef honum þad.

4. Og þó hann bríóte siösinnum á deige vid þig, og kæme siösinnum aftur á deige til þín, og segde: þad idrar mig, þá skallþú fyrergefa honum þad.

5. Og Postularner sögdu til Drottins: auk þú oss trúna.

6. Enn Drottenn sagde: ef þer hefdud trú, sem annad mustards korn, og segdud þessu morberia tre: uppræt þig, og rótset þig í siónum, þá skyllde þad ydur hlyda.

7. Hver er á medal ydar, sem hefir einn þión, sem plæger, edur fenad hyrder, nær hann kemur heim af akre, at hann sege honum þá: Far strax og set þig til bords! er þad eigi svo;

8. Ad hann sege til hans: bú til þad eg skal neyta í kvölld, og skyt þig upp, og þióna mer, þar til at eg hefe etid og druckid, og efterá, þá skalltþú eta og drecka?

9. Þackar hann nockud þeim þióni, þó at hann gere hvad honum var bodid? Eg meina nei.

10. Svo og þer líka; nær þer hafed allt þat gert, hvad ydur var boded, þá seged: Onyter þiónar erum ver, þvi hvad ver áttum med skylldu at gera, þat gerdum ver.

11. Þad skede og, þá hann fór til Jerusalem, at hann ferdadest midt gegnum Samariam og Galileam.

12. Og þá hann kom í nockurt kauptún, mættu honum tíu likþráer menn, hverer stódu lángt frá.

13. Hófu upp sína raust og sögdu: Jesu, kære meistare, miskuna þú oss!

14. Og þá hann sa þá, sagde hann til þeirra: Fared þer og syned ydur prestunum. Og þat skede þa þeir gengu þadann, at þeir urdu hreiner.

15. Enn einn af þeim, nær hann sa at hann var heilbrigdur

ordenn, snere hann aftur, og lofa-
de Gud med hárre raust.
16. Fell framm á sína ásiónu
fyrer fætur hønum og þackade høn-
um: og þesse var Samverskur.
17. Enn Jesus svarade og sag-
de: Eru þer eigi tíu hreinsader?
Enn hvar eru þeir níu?
18. Fundust enger adrer, þeir
aftur sneru, og gæfu Gude dyrdena,
nema þesse útlendingur?
19. Og hann sagde til hans:
Statt þú upp og far hedann, þín
trú gerde þig hólpinn.
20. Enn þá hann var atspurd
ur af Phariseis, hvenær Guds ríke
kæme? svarade hann þeim og sag-
de: Guds ríke kemur eigi med ytre
hegdan, sem menn kunna at taka
vara á.
21. Þar mun og eigi segast,
siá, her eda þar er þat, því
siáed, at Guds ríke er hid innra
í ydur.
22. Þá sagde hann til læri-
sveinanna: Þær stunder koma, at
þer munud gyrnast at siá einn dag
mannsins son, og munud hann
eigi siá.
23. Og þeir munu sega til
ydar: Siá her, siá þar, ganget
eigi þángat, og eigi helldur
fylged.
24. Því at svo sem elldíng af
himne ofan leiptrar, og lýser yfer
allt þat, sem er under himnenum,
líka svo mun mannsins sonur vera
á sínum dege.
25. Enn hønum byriar fyrst
margt at þola, og útskúfadur ver-
da af þessare kynslód.
26. Og svo sem þat skede í tíd
Noa, líka svo mun ske á døgum
mannsins sonar.
27. Þeir átu og druncku; þeir
kvongudust og letu sig gifta, allt
til þess dags, þá Noe geck í ørke-
na, og flódid kom, og tortíndi
þeim øllum.
28. Einnenn, líka svo sem þat
skede í tid Loths; þeir átu og
druncku; þeir keyptu og selldu,
þeir pløntudu og uppbygdu.
29. Enn á þeim døgum, sem
Loth fór út af Sódoma, rignde
ofann ellde og brennesteine af him-
ne, og fyrerfór þeim øllum.
30. Efter slíkum hætte mun þat
tilgánga á þeim døgum, sem manns-
ins sonur mun openberast.
31. Hver hann verdur á þeim
sama dege á ræfre staddur, og se
hans búsgagn í húsinu, þa stige
hann eigi ofann þat at sæka. Svo
og einnenn, sa sem á akre er, þá
snúe hann eigi aftur, efter því
sem á bake hønum er.
32. Minnest þer á konu Loths.
33. Hver hellst sem sæker efter
sína sálu at forvara, sa misser
hana; og hver hellst hann misser
hana, sa hiálpar henne til lífsins.
34. Eg sege ydur: á þeirre nótt-
tu munu tveir liggia á einne sæng,
einn mun medtekenn, og annar
forlátinn.
35. Og tvær munu mala til
samans, ein mun medteken og ønn-
ur forláten.
36. Þeir svørudu og søgdu til
hans: Hvar þá Herra?
37. Enn hann sagde til þeirra:
Hvar hellst hræed er, þángat
safnast og erner.

## 18. Capitule.

1. Enn hann sagde eina efter-
líking til þeirra þar uppá, at menn
skylldu jafnann bidia og eigi
afláta.
2. Og sagde: Sá domare var

í nockore borg, sem eigi óttadest Gud, og eigi skeytte um nockorn mann.

3. Enn eckia nockur var þar í sömu borg, og hún kom til hans og sagde: Hiálpa mer frá mínum mótstodumanne.

4. Og lenge villde hann eigi. Enn efterá þeinkte hann med siálfum ser: Þó eg óttest eigi Gud, ne skeyte um nockorn mann.

5. Þó fyrer þat, at þesse ecka gerer mer onád svo mikla, þá vil eg hiálpa henne, svo at hún kome eigi at sídustu, og nande á mer.

6. Þá sagde Drottenn: Heyred þer hvad sá rángláte dómare seger.

7. Skyllde Gud eigi gera frelsan sinna útvalldra, þeirra sem nótt og dag til hans kalla? Enn þó hann hafe þolinnmæde þar yfer?

8. Enn eg sege ydur, at hann man brádlega gera þeirra frelsan. Enn þó, nær mannsins sonur mun koma, meinar þú, at hann mune trú finna á jördu?

9. Enn hann sagde til nockora þeirra, sem treystu uppá siálfa sig, at þeir væru rettláter, og forsmádu adra, svoddan efterlíking:

10. Tveir menn gengu upp í mustered at bidiast fyrer, einn var Phariseus, enn annar tollheimtumadur.

11. Pharisearenn stód og badst þannenn fyrer med siálfum ser: Gud! Eg þacka þer, at eg em eigi svo sem adrer menn, ræningar, órettferdnger, hórdomsmenn, eda svo sem þesse tollheimtumadur.

12. Eg fasta tvisvar í viku, og gef tíunder af öllu því eg á.

13. Og tollheimtumadurenn stód lángt frá, og villde eigi upphefia sín augu til himens, helldur barde hann á sitt brióst, og sagde: Gud! Vertþu mer syndugum líknsamur.

14. Eg sege ydur, at þesse fór rettlátur framar hinum ödrum nidur í sitt hús. Því hver sig siálfann upphefur, hann mun nidurþryckast, og hver siálfann sig nidurþrycker, hann mun upphafenn verda.

15. Þeir færdu og til hans úngbörn, at hann snerte þau, enn þá þat sáu hans læresveinar ávítudu þeir þá.

16. Enn Jesus kallade þau til sín og sagde: Leyfed börnum til mín at koma, og banned þeim þat eigi, þvíat þvílíkra er Guds ríke.

17. Sannlega þá sege eg ydur: hver hann eigi medtekur Guds ríke sem úngbarn, hann mun eigi inngáuga í þat.

18. Og einn af höfdingiunum spurde hann at, og sagde: Góde meistare! hvad skal eg gera, at eg megi erfa eylíft líf?

19. Enn Jesus sagde til hans: Hvad kallar þú mig gódann? Eingenn er gódur, nema Gud alleinn.

20. Bodordenn veitstþú? Eigi skalltþú hórdom dryga; eigi mann vega; eigi stela; eigi liúgvitne bera; heidra skalltþú þinn födur og þína módur.

21. Enn hann sagde: Allt þetta hefi eg halldid frá úngdome mínum.

22. Þá Jesus heyrde þat, sagde hann til hans: Eitt brestur þig enn; sel allt hvad þú hefir, og gef fátækum, og muntþu þá hafa

stód á himne, og kom og fylg mer efter.

23. Þá hann heyrde þat, vard hann miøg hryggur, af því hann var miøg audugur.

24. Enn þá Jesús sá hann hrygg ann ordenn, sagde hann: Hversu torvelldt er þeim sinn at gánga í Guds ríke, sem ríkdóm hafa.

25. Hægra er ulfaldanum at gánga gegnum nálarsaugad, enn ríkum manne at komast í Guds ríke.

26. Þá sagdu þeir, sem til heyrdu: Hver fær þá hiálpast?

27 Enn hann sagde: Hvad ómøgulegt er fyrer mønnum, þat er møgulegt fyrer Gude.

28. Þá sagde Petur: Siá þú! ver forleitum allt og fylgdum þer efter.

29. Enn hann sagde til þeirra: Sannlega sege eg ydur: eingenn er sá, hver sitt hús, ed foreldra, eda brædur, konu eda børn forlæt ur, vegna Guds ríkis.

30. At hann medtake þat eigi margfalldt aftur á þessum tíma, og í ødrum heime eylíft líf.

31. Enn hann tók þá tólf til sín og sagde til þeirra: Siáed, at verførum nú upp til Jerusalem, og þat mun allt fullkomnad verda, hvad skrifad er, fyrer spámennena af mannsins syne.

32. Þvíat hann mun framm selldur verda heidingum, og hann mun slegenn, smádur og spyttur verda.

33. Og þeir munu hann húdstryka og aflífa, og á hinum þrida dege mun hann uppaftur rísa.

34. Enn þeir understódu ecki þar af, og sú ræda var hulenn fyrer þeim, og eigi vissu þeir, hvad sagt var.

35. Enn þat skede, þá hann tók at nálgast Jericho, at nockur madur blindur sat vid vegenn og bad ølmosu:

36. Enn þá hann heyrde fólked, sem þar frammhiá geck, spurde hann at, hvad þat være.

37. Þeir søgdu hønum, at Jesus af Nazareth genge þar hiá.

38. Þá kallade hann og sagde: Jesu sonur Davids, miskuna þú mer!

39. Enn þeir sem undann geng gu, høstudu á hann, at hann þegde. Hann kallade því meir, sonur Davids, miskunn þú mer!

40. Þá stód Jesus kyrr, og baud, at leida hann til sín. Og þá hann var komenn hart nær hønum, spurde hann hann at,

41. Og sagde: Hvad villtu eg geve þer? Hann sagde: Herra! at eg mætte siá.

42. Jesus sagde til hans: Vert skygn, þín trú gerde þig hólpenn.

43. Og jafnsnart feck hann synena og fylgde hønum og efter, vegsamande Gud, og allt þat fólk sem þetta sá, lofade Gud.

## 19. Capitule.

1. Og hann fór burt, og geck gegnum Jericho.

2. Og siá, at madur sá sem Zacheus var at nafne, sá var foringe tollheimtumanna, og var audugur.

3. Hann gyrndtest at siá Jesum, hver hann være, og gat eigi fyrer fólkenu, þvíat hann var lítell vexte.

4. Hann hliób þá framm undann, og klifrade upp í nockurt

meðberatee, svo at hann gæte séd hann, því þar átte hann framm um at fara.

5. Og sem Jesus kom at þeim farna stad, leit hann upp, og varð hans var, og sagde til hans: Zachee, stíg þú med skynde ofan, þvíat í dag skal eg koma í þitt hús.

6. Og hann ste skyndelega ofann, og tók vid honum fagnande.

7. Og þá þeir sáu þat, mögludu þeir aller, at hann villde herberga sig hiá bersyndugum manne.

8. Enn Zacheus geck framm, og sagde til Drottenns: Siá þú Herra! helfttna minna eigna gef eg fátækum, og ef eg hef nockurn tælldt, þá gef eg ferfalldt aftur.

9. Jesus sagde þá til hans: Í dag þá veitest þessu húse sálu hiálp, med því at hann er Abrahams sonur.

10. Þvíat mannsins sonur er komenn efter at leita, og sáluhólped at gera, þat sem tapad er.

11. Þá þeir nú tilheyrdu, sagde hann þeim frammveiges eina efterlíking, af því at hann var þar nærre Jerusalem, og þat, þeir ætludu at Guds ríke munde þá strax openbert verda.

12. Og sagde: nockur edalborenn madur ferdadest í fiarlægt land, at hann aflade sér ríkis, og kæme svo aftur.

13. Þesse kallade á tíu sína þióna, og feck þeim tíu pund, og sagde til þeirra: sysled þar med, til þess, eg kem aftur.

14. Enn hans borgamenn hotudu hann, og sendu bod efter honum, og létu sega honum: Ver vilium eigi þennann ríkia láta yfer oss.

15. Þad skede og, þá hann kom aftur, og hafde ríked under sig teked, skipade hann at kalla á þá sömu þióna, hverum hann þafde feid feinged, svo at hann visse, hvad huer hafde syslad.

16. Hinn fyrste kom og sagde: Herra, þitt pund hefir afrekad tíu pund.

17. Hann sagde til hans: Eia þú gode þión! af því þú varst trúr í minnstu, skalt þú valld hafa yfer tíu borgum.

18. Hinn annar kom einnenn, og sagde: Herra! þitt pund hefir samanndreged fimm pund.

19. Til hans sagde hann einnenn: Og þú skalt vera yfer fimm borgum.

20. Og hinn þridi kom og sagde: Herra! siá her, þar er þitt pund, hvert eg hefe í sveitadúke fólged.

21. Eg hræddist þig, því þú ert einn hardur madur, tekur þad upp, hvad þú hefir eigi nidurlagt, og uppsker þad, hvad þú sáder eigi.

22. Hann sagde til hans: Af þínum munne dæme eg þig, þú skálkur. Visser þú þad, at eg se hardur madur, takande þad, hvad eg lagde eigi nidur, og uppskerande þad, hvad eg sáde eigi.

23. Hvar fyrer gafstu eige minn peninng á mangarans bord át nær eg kæme, hefde eg þess med okre krafid.

24. Og hann sagde til þeirra, sem þar hiá stódu: Taked þad pund frá honum og sáed þeim sem tíu pund hefir.

25. Þeir sögdu honum: Herra! tíu pund hefir hann.

26. Enn eg sege ydur þad, at hver sem hefir, hønum mun gefed verda, enn frá þeim sem eigi hefir, mun þad burtnumed verda, hvad hann hefir.

27. Þó þá mína óvine, sem eigi villdu mig rikia láta yfer ser, leided hingat, og deyded þá her framme fyrer mer.

28. Og sem hann sagde nú þetta, fór hann áfram, og ferdadest upp til Jerusalem.

29. Og þad skede, þá hann tók at nálgast Bethphage og Bethaniam, og kom til Fiallsins Oliveti, at hann sende út tvo af sínum lærefveinum;

30. Og sagde: farid þer í þad Kauptún, hvert gegnt yckur er, og þá þer komid þar inn, munud þer finna einn fola bundenn, á hverum alldrei hefir enn nú nockur Madur setid, leysid hann og leidid hingat

31. Og ef nockur spyr yckur: því leysed þer hann? þá seged hønum svo: Herrann þarf hans vid.

32. Enn þeir fóru burt sem sender voru, og fundu, sem hann hafde sagt þeim.

33. Og sem þeir leystu Folann, søgdu hans Drottnar til þeirra: fyrer hvad leysid þer Folann?

34. Þeir søgdu: Herrann þarf hans vid.

35. Og þeir høfdu hann til Jesum, og køstudu sínum klædum á folann, og settu Jesum þar upp á.

36. Enn sem hann fór af stad, breiddu þeir sín klæde á vegenn.

37. Og þá hann tók at nálgast, og fór ofann af fiallenu, hóf upp allur flockur hans lærefveina af fagnade, Gud at lofa med hárre røddu, yfer øllum þeim furduverkum, sem þeir høfdu sed;

38. Og søgdu: Lofadur se sá, sem kemur einn konongur í nafne Drottins, fridur se á Himne, og dyrd á Upphædum!

39. Og nockorer af Phariseis, þeir sem voru med fólkenn, søgdu til hans: Meistare, straffa þína lærefveina.

40. Hann svarade og sagde til þeirre: eg sege ydur þad, ef þesser þegdu, þá mundu steinarner hlióda.

41. Og sem hann tók meir at nálgast, sá hann á borgena, og gret yfer henne, og sagde:

42. Ef þú visser þad, munder þú á þessum tíma hugleida, hvad til þíns fridar þenade, enn nú er þad dulid fyrer þínum augum.

43. Því at sá tíme mun yfer þig koma, at þíner óviner munu um þig skialdborg setia, og þer umsát veita, og alla vegu at þer þreyngia.

44. Og þeir munu þig eydelegga, og þín børn med þer, og eigi munu þeir láta einn stein yfer ødrum standa, af því, at þú þeckter eigi þinn vitiunartíma.

45. Og hann geck inn í Mustered, og tók út at reka þá, sem selldu og keyptu þar inne;

46. Og sagde til þeirra: skrifad stendur: Mitt hús er bænahús, enn þer gerdud þad at spillvirkia bæle.

47. Og hverss daglega kende hann í Musterenu. Enn kenneмannahøfdingar og skriftlærder, og villdarmenn lydsins sóttu efter at fyrerkoma hønum;

48. Og fundu eigi hvad þeir skylldu hønum gera, því at allt

fólked var hannum áhangande, og heyrde hann.

## 20. Capitule.

1. Og þad skede á einum þessara daga, þá hann var at kenna fólkenu í Musterenu, og at predika evangelium, þá gengu til hans prestahøfdingar og skriftlærder med olldungum;

2. Og tøludu til hans og søgdu: Seg oss, af hverre magt þú gierer þetta? Eda hver er sá sem þer gaf þá magt?

3. Þá svarade hann og sagde til þeirra: Eg vil spyria ydur og at einu orde, seged mer þad:

4. Skírn Johannis, var hún af himne, eda af mønnum?

5. Enn þeir hugsudu med siálfum ser, og søgdu: ef ver segum, af Himne; svo seger hann: Fyrer því trúdud þer henne eigi?

6. Enn ef ver segum: af Mønnum; þá mun allur lydur lemia oss Grióte, þvíat þeir standa á því, at Johannes se spámadur.

7. Og þeir svørudu, at þeir vissu eigi, hvadan hún være.

8. Og Jesus sagde til þeirra: Þá sege eg ydur eigi helldur, af hverri makt eg gere þetta.

9. Enn hann tók þá at sega til fólksins þessa efterlíking; Nockur Madur plantade víngard, og bygde hann víngardsmønnum, og fór utanlands lángann tíma.

10. Og sem tíme var til, sende hann einn Þión til víngardsmannanna, at þeir gæfi hønum ávøxt af víngardenum. Enn víngardsmennerner slóu hann, og letu hann tómhendtann frá ser fara.

11. Og um þad fram sende hann út annann Þíon; enn þeir strýktu hann og dárudu, og letu erindislausann burt frá ser fara.

12. Og enn yfer þad framm sende hann út hinn þrida, hvern þeir lemstrudu sárum og ráku burt sidann.

13. Þá sagde herrann víngardsins: Hvad skal eg til gera? Eg vil senda son minn elskulegann, má vera, at, þá þeir siá hann, þá feile þeir ser.

14. Enn þá víngardsmennerner sáu sonenn, þeinktu þeir med siálfum ser, og søgdu: Þesse er erfingenn; komed, aflííum hann, svo at vor verde arfleifdenn.

15. Og þeir hrepptu hann út af víngardenum, og líflietu hann. Hvad mun nú herrann víngardsins gera til vid þá?

16. Hann mun koma og tortína þessum víngardsmønnum, og byggia sinn víngard ødrum. Þá þeir heyrdu þad, søgdu þeir: fiærre se því.

17. Enn hann horfde á þá, og sagde: hvad er þá þad, sem stendur skrifad: þann stein hvørn uppbyggendur burtkøstudu, sá er ordenn at hyrningarsteine.

18. Hver hann fellur á þennann stein, sá mun sundurmeliast, enn sá hvern hann fellur, þann mun hann kremia.

19. Og kennemannahøfdingar og skriftlærder høfdu í ásetninge, hvernenn þeir fengu hendur á hann lagt í þad sinn, og óttudust fólkid, þvíat þeir formerktu, at hann hafde sagt móti þeim þessa efterlíking.

20. Þeir høfdu og vardhalld á hønum, og sendu út tálsmenn, hverer ser áttu at breita sem være þeir aldygger, svo at þeir gæti

veidt hann í ordum, hvar med þeir kynnu at afhenda hann valldenu, og makt laudstiórnarans.

21. Og þeir spurdu hann at, og sögdu: Meistare! ver vitum, þú seger og kenner rett, og álítur eigi nockors manns álit, helldur kenner þú Guds veg retteliga.

22. Er þad rett, at ver gefum Keisaranum skatt eda eigi?

23. Enn hann merkte þeirra flattskap, og sagde til þeirra: hvad freisted þer mín?

24. Syned mer peningenn, hvers mind og yfirskrift hefir hann? þeir svörudu, og sögdu: Keisarans.

25. Han sagde þá til þeirra: svo gefed Keisaranum hvad Keisarans er, og Gude hvad Guds er.

26. Og þeir gátu eigi straffad hans ord fyrer fólkenu, undrande hans andsvar, og þögnudu.

27. Þá gengu nockorer af Saduceis til hans hverer hallda, at eingenn upprísa se, og spurdu hann at;

28. Og sögdu: Meistare, Moyses hefir oss svo fyrerskrifad, ef einhvers bróder andadest, sá sem egtakonu ætte, og dæe Barnlaus, þá skal hans bróder taka hans konu, og uppvekia svo sínum bródur sæde.

29. Nú voru sio brædur, og hinn fyrste feck ser eigenkonu, og andadest barnlaus.

30. Og sá annar feck hennar og andadest barnlaus.

31. Og hinn þridi átte hana, líka og einnenn aller þeir sio, og letu eigi børn efter og öndudust.

32. Enn seinast allra andadest og konann.

33. Hvers þeirra eigennkona verdur hún nú í upprisunne? þvíat aller þeir sio hafa hana haft til eiginkonu.

34. Og Jesus svarade og sagde til þeirra: Børn þessarar verallder, kvongast og láta gifta sig.

35. Enn þeir sem verduger verda, at ödlast hinn annann heim og upprisu af daudum, þeir munu hverke giftast ne sig gifta láta.

36. Því þeir geta eigi sídann dáed, því þeir eru englum líker, og eru Guds børn, med því þeir eru upprisunnar børn.

37. Enn þad, at hiner framlidnu munu upprísa, hefir Moyses audsyndt vid runnenn, þá hann kallade, Drottenn, Gud Abrahams, og Gud Isaacs, og Gud Jacobs.

38. Enn Gud er eigi daudra, helldur lifendra manna Gud, þvíat þeir lifa hönum aller.

39. Pa svörudu nockorer af hinumSkriftlærdu og sögdu: meistare! þú hefir rett sagt.

40. Og þeir dirfdust eigi framar at spyria hann nockurs.

41. Enn hann sagde til þeirra: hvernenn segia þeir Christ vera Davids son?

42. Og siálfur David seger í psalmabókenne: Drottenn sagde til míns drottens: sit þú til minnar hægre handar.

43. Þar til eg legg þína óvine til skarar þinna fóta.

44. David kallar hann Drottenn: hvernenn er hann þá hans sonur?

45. Enn öllu fólkenu áheyrande, þá sagde hann til sinna lærosveina.

46. Vakted ydur fyrer hinum Skriftlærdu, hverer gánga vilia í sídum klædum, og kærar hafa kvediur á törgum og hin fremstu

sæte í samkundubúsum, og vid borð, þeir uppsvelga ecknanna hús, med yfervarpi långs bæna halds, þeir munu ødlast þess þyngre fyrerdæmingu.

## 21. Capitule.

1. Enn hann leit upp, og sá þá hina ríku, hvernenn þeir leiu sijt offur í Guds kistuna.

2. Þá sá hann og svo eina eckiu fátæka sem, let þar inn tvo skarfa.

3. Og hann sagde: Sannlega sege eg ydur, þat þesse fátæka eckia hefir meira lagt þar inn enn hiner aller.

4. Því þeir hafa aller af sinne yferflíbtanlegre eign innlagt til Guds offurs; enn þesse hefir af sinne fátækt alla sína næringu þar innlagt, sem hún hafde.

5. Og þá nockorer sögdu um musteried, at þat være fágad med fögrum steinum og clenodium, sag: de hann:

6. Sá tíme mun koma, á hverum allt þetta, hvad þer siáed, mun eingenn steinn yfer ødrum láienn, at eigi mun nidur brotenn.

7. Enn þeir spurdu hann og sögdu: Meistare! nær skal þat verda, og hvad merke er til, þá þetta mun ske?

8. Enn hann sagde: Siáed til, at þer verded eigi villter, þvíat marger munu koma í mínu nafne, og sega, at eg se þat, og sá tíme tekur at nálgast, fylged þeim eigi efter.

9. Enn nær þer heyred af bar: dögum og upphlaupum, þá hræd: est eigi, þvíat þessu byriar ádur at ske, enn endenn er þó eigi þá strax.

10. Þá sagde hann til þeirra: Ein þiód mun hefiast upp móte annare, og eitt ríke móte ødru.

11. Og mikler jardskiálftar munu þar verda allstadar, húng: ur og drepsótt og skelfingar, og stór teikn munu þar ske af himne.

12. Enn fyrer allt þetta munu þeir hendur á ydur leggia, og atsokn veita, og ydur munu þeir framm: selia, í sín samkunduhús og myrk: rastofur, dragande ydur fyrer konunga og landshøfdinga, fyrer míns nafns saker

13. Enn þetta mun ydur henda til eins vitnisburdar.

14. Því seted ydur í hiarta, at þer hugsed eigi fyrer, hvernenn þer skulud forsvara ydur.

15. Þvíat eg mun gefa ydur munn, og vitsku, hverum eigi skulu gegn standa, ne móte mæla, aller ydar mótstødumenn.

16. Enn þer munud og fram: selder verda af foreldrum og brædrum, frændum og vinum, og nockora af ydur munu þeir lífe svipta.

17. Og þer munud verda hatad: er af hverum manne fyrer míns nafns saker.

18. Og ecki hár af ydru høfde skal þó farast.

19. Eignest med þolenmæde sáler ydrar.

20 Enn nær þer siáed Jeru: salem umkringda af her, þá skulud þer vita at nálgast tekur hennar eydelegging.

21. Svo at hver þá er í Judea, sá flye uppá fiøll; og hver þar er midt inne, fare hann út þadann; og hver á løndunum uppe er, hann kome eigi þar inn.

22. Þvíat þat er hefndar dag:

ur, svo at uppfyllt verde, allt hvad skrifad er.

23. Enn ve ólettum og brióstmylkingum á þeim døgum, þvíat mikel harmkvæle munn verda á jørdu, og reide yfer þessu fólke.

24. Og fyrer sverdseggum munu þeir falla, og herleidder verda medal allra þióda, og Jerusalem mun undertrodast af heidingum, þar til at uppfyllast tímar heidinga.

25. Og þar munu ske teikn á sólu og túngle og stiørnum, og á jørdu mun fólked kvídande verda, og þeir munu ørvinlast: siór og bylgur munu þióta.

26. Og menn munu fyrer hrædslu vanmegnast, og af eftirbídingu þeirra hluta, hverer koma skulu á jørdena. Þvíat kraftar himensins munu hræra sig.

27. Og þá munu þeir siá mannsins son komande í skýum, med stórum krafte og dyrd.

28. Enn nær þetta tekur at ske, þá lyted upp, og upphefed ydar høfud, af því at ydar endurlausn tekur at nálgast.

29 Og hann sagde þeim eina eftirlíking: Skoded fíkiutred og øll tre.

30. Nær þeirra allden tekur út at springa, þá siáed þer á þeim, og merked, at sumared er nú í nánd.

31. Svo og líka nær þer siáed allt þetta byriast, þá vited þat, at Guds ríke er nálægt.

32. Sannlega sege eg ydur, at þesse kynslód mun eigi fyrerfarast, ádur allt þetta sker.

33. Himenn og jørd forgánga, enn mín ord forgánga eigi.

34. Enn vared ydur, at ydar hiørtu þyngest eigi af ofáte og ofdrykkiu, og med sorgum þessarar næringar.

35. At eigi kome þesse dagur hastarlega yfer ydur, þvíat líka sem snarann mun hann koma yfer alla þá, sem á jørdu byggia.

36. Svo verid nú vakande alla tíma, og bided, svo at þer mætted verduger verda, at umflya allt þetta, hvad efterkomande er, og at standa svo framme fyrer mannsins syne.

37. Og um daga kennde hann í musterenu, enn um nætur geck hann út, og dvaldest um nætur á oleufiallenu.

38. Og allt fólk tók sig snemma upp til hans í mustered, hann at heyra.

## 22. Capitule.

1. Enn þá var nálæg hátíd hins sæta brauds, sú sem kalladest páskar.

2. Og þeir ædstu prestar og skriftlærder høfdu í sinne, hvernenn þeir gætu hann lífláted, og þeir óttudust lýdenn.

3. Enn andskotenn var hlaupenn í Judas, hver kalladur var Ischarioth, einn af tølu þeirra tólf.

4. Og hann fór burt, og talade vid þá ædstu presta og høfudsmenn, hvernenn hann villde selia þeim hann.

5. Þeir gløddust vid, og hetu at gefa hønum peninga.

6. Og hann lofade þeim því, og leitade lags, at hann feinge sellt þeim hann án upphlaups.

7. Nú kom dagur hins sæta brauds, á hverum offra skyllde páskalambet.

8. Og hann sende út Petrum og

Johannem og sagde: Fared þer, búed ofs til paskalambet, svo at ver neytum þess.

9. Enn þeir søgdu til hans: Hvar villtþú at ver búum þat til.

10. Hann sagde til þeirra: Siáed, nær þer komed ínn í borgena, mun madur mæta ydur berande vatnskrús, fylged hønum efter í þat hús, sem hann gengur ínn.

11. Og seged húsbondanum: Meistarenn lætur segia þer: Hvar er þat herberge, þar eg megi páskalambet í eta med mínum læresveinum?

12. Og hann mun vísa ydur stórann sal, steinlagdann, búed þat þar til.

13. Þeir gengu burt og fundu svo sem hann hafde tilsagt þeim, og reiddu til páskalambet.

14. Og þá stundenn kom, sette hann sig nidur, og þeir tólf postular med hønum.

15. Og hann sagde til þeirra: Mig hefir hiartanlega efterlángad at eta þetta páskalamb med ydur, ádur enn eg lídi.

16. Þvíat eg sege ydur: at her efter, mun eg eigi oftar af því neyta, þar til þat fullkomnast í Guds ríke.

17. Og hann tók kaleikenn, gerde þacker og sagde: Medtaked hann, og skifted hønum á mille ydar.

18. Þvíat eg sege ydur: eg mun eigi drecka af vínvidar ávexte, fyrr enn Guds ríke kemur.

19. Og hann tók braudet, gerdi þacker, og braut þat, og gaf þeim þat, og sagde: Þetta er mitt holld, þat fyrer ydur gefid verdur; gered þetta í mína minning.

20. Líka einnenn og kaleikenn, efter kvøllmáltídena, og sagde: Þesi er kaleikur hins nya testamentis í mínu blóde, hvert fyrer ydur verdur úthellt.

21. Enn þó siáed, at hønd þess sem mig svíkur er á borde med mer.

22. Og at sonnn fer mannsins sonur, efter því sem álycktad er; þó ve þeim manne, fyrer hvern hann verdur svíkenn.

23. Og þeir tóku sín á mille at spyria, hver af þeim være sá sem þetta mundi gera?

24. Enn þar hófst upp þræta þeirra á mille, hver þeirra munde mestur halldenn verda.

25. Enn hann sagde til þeirra: Veralldleger konungar drottna, og hverer yfermaktena hafa, þá kalla menn náduga herra.

26. Enn þer eigi svo, helldur sá sem mestur er ydar á mille, vere hann svo sem hinn yngste, og hinn ædste, sem annar þenare.

27. Því hver er meire, sá sem til bordsins situr, edur hinn sem þiónar? Er eigi svo, at hann sem vid borded situr? Enn eg em á mille ydar sem einn þiónn.

28. Enn þer erud þeir, hverer hiá mer hafa stadnæmst í mínum freistingum.

29. Og eg vil skicka ydur ríked svo sem minn fader hefir mer þad skickad.

30. Svo at þer skulud eta og drecka yfer mínu borde, í mínu ríke, og sita á stólum dæmande tólf kynkvísler Israels.

31. Enn Drottenn sagde: Simon! Simon! siá þú, at andskotenn hefir gyrnst ydar, at hann mætte sællda ydur sem hveite.

32. Enn eg bad fyrer þer at

þín trú skylldе eigi linna, og þegar þú snýst einn sinne, þá stirk þú brædur þína.

33. Enn hann sagde til hans: Herra! reidubúenn em eg med þer í fiötur og dauda at gánga.

34. Þá sagde hann: Petur! eg sege þer, at í dag mun eigi han enn gala, fyrr enn þú hefir þrísvar afneitad því, at þú þeckter mig.

35. Og hann sagde til þeirra: Þá eg sende ydur út án púngs, án tösku, og án skúa, hvert brast ydur þá nockud? Enn þeir sögdu: Ecki.

36. Þá sagde hann til þeirra: Enn nú, hver sem púng hefir, sá take hann, lika og einnenn töskuna, og sá sem eigi hefir, seli hann kyrtel sinn, og kaupe sverd.

37. Þvíat eg sege ydur: at þad hlítur á mer at fullkomnast hvad skrifad er, at hann se med illvirkum reiknadur. Því hvad af mer skrifad er, hefir einn enda.

38. Enn þeir sögdu: Herra! siá, tvö sverd eru her. Hann sagde til þeirra: Þad er nóg.

39. Og hann geck efter vana sínum, út til Fiallsins Oliveti, og hans lærisveinar fylgdu hönum efter.

40. Og þá hann kom þángat, sagde hann til þeirra: bided svo at ei falled þer í freistne.

41. Og hann sleit sig frá þeim nær einu steinsnare, fell á kne, og tók at bidia.

42. Og sagde: Fader, ef þú villt, þá tak þennann kaleik frá mer, enn þó verde eige minn, helldur þinn vile.

43. Enn hönum birtest engell af Himne, styrkande hann.

44. Og þar kom, at hann strídde vid Daudann, og tók ákafar at bidia. Enn hans sveite vard svo sem blóddropar, hverir fellu á jördena.

45. Og hann stód upp af bæninne, og kom til sinna lærisveina, og fann þá sofandi af hrigd.

46. Og sagde til þeirra: hvad sofed þer? standed upp, og bided, svo at þer falled eigi í freistne.

47. Þá hann var þetta at sega, siá! at flockurenn, og einn af þeim tólf, sá Judas het, geck fyrer þeim, og nálgadest Jesum, at hann kyste hann.

48. Enn Jesus sagde til hans: Juda, svíkur þú Mannsins son med kosse?

49. Enn þá þeir, sem hiá hönum voru, sáu hvad verda villde, sögdu þeir til hans: Herra! skulum ver slá med sverde?

50. Enn einn af þeim sló þiónn Prestahöfdingans, og hió af hönum hans hid hægra eyra.

51. Jesus svarade og sagde: Leyfed þeim at gera allt hid frekasta. Og hann snart hans eyra og læknade hann.

52. Enn Jesus sagde til þeirra ædstu presta, og höfudsmanna Musteresins, og Öldunganna, hverer til hans voru komner: Svo sem til annars ræninga gengud þer út med sverdum og stöngum.

53. Eg var daglega í Musterenu hiá ydur, og þer lögdud eigi hendur á mig, enn þetta er ydar tíme og makt myrkranna.

54. Enn þá gripu þeir hann og leiddu hann í þess ypparsta prests hús: enn Petur fylgde efter álengdar.

55. Þeir kveiktu þá upp elld í midre høllenne, og settust til samans, og Petur sette sig á mille þeirra.

56. Þá sá hann ambátt nockur sita vid logann, stardi á hann og sagde til hans: þesse var og med hønum.

57. Enn hann afneitade og sagde: Kona, eige þecke eg hann

58. Og litlu einu þar efter, sá hann einn annar madur og sagde: þú ert og einn af þeim: enn Petur svarade: Madur! eigi em eg.

59. Og þar efter, nær einne stundu, stirkte nockor annar þad og sagde: at sønnu var og þesse med hønum, því hann er Galileare.

60. Enn Petur sagde: Madur! eigi veit eg hvad þú seger: og jafnsnart, at hønum nú þetta enn tallande, gól hanenn.

61. Og Drottenn snerest vid og leit til Peturs, og Petur minntest orda Drottens sem hann hafde sagt: fyrr enn hanenn gelur, munt þú afneita mer þrisvar.

62. Og Petur geck út og gret beisklega.

63. Enn þeir menn, sem helldu Jesu, dárudu hann og slóu.

64. Byrgdu hann og slóu í hans andlit, spurdu hann og søgdu: spá þú, hver sá er, sem þig sló?

65. Og margt annad háduglegt søgdu þeir vid hann.

66. Og sem dagur var, søfnudust samann Olldungar lydsins, og hiner ædstu prestar, og hiner skriftlærdu, og leiddu hann upp fyrer sitt rád.

67. Og søgdu: ef þú ert Christur, seg oss þad. Og hann sagde til þeirra: ef eg sege ydur þad þá trúed þer því eigi.

68. Enn ef eg spyr ydur, þá svared þer mer eigi, og láted mig þó eigi lausann.

69. Nú hedann í frá mun Mannsins sonur sitia til hægre handar Gúds kraftar.

70. Enn þeir søgdu aller: ert þú þá Guds sonur? Hann sagde til þeirra: þer seged þad, því at eg em.

71. Þá søgdu þeir: hvad þurfum ver nú vitnisburdenn lengur? ver siálfer heyrdum þad af hans munne.

## 23. Capitule.

1. Og allur sá hópur stód upp, og leidde hann fyrer Pilatum.

2. Tóku at áklaga hann og søgdu: þennann funnum ver, at hann frásnyr fólkenu, og fyrerbydur skatt at gefa Keisaranum, og seger sig at vera konongenn Christum.

3. Enn Pilatus spurde hann at og sagde: ert þú konongur Gydinga? Hann svarade hønum og sagde: þú seger þad.

4. Pilatus sagde til þeirra yppurstu presta og til lydsins: enga søk finn eg med þessum manne.

5. Enn þeir voru þess ákafare og søgdu: hann hefir uppæst fólkid, med því hann hefir kennt á øllu Gydingalande, og hefir tiltekid í Galilea allt híngat.

6. Enn þá Pilatus heyrde Galileam nefnda, spurde hann at, hvert hann være einn Galileare.

7. Og þá hann fornam, at hann var under Heródis valldi, sende hann hann burt til He-

vdem, sem einneinn var á þeim sømu døgum í Jerúsalem.

8. Enn þá Herodes sá Jesum, vard hann næsta gladur, þvíat hann hafde fyrer langgu gyrnst at siá hann, af því at hann hafde margt heyrt af hønum, og hann vænte at hann munde siá eitt teikn af hønum.

9. Og atspurde hann á marga vega, enn hann svarade hønum engu.

10. Enn kennemannahøfdingar og skriftlærder stódu og ásøkudu hann hardlega.

11. Enn Herodes med sínum strídsmønnum forsmáde hann og spottade, færde hann í hvítt fat, og sende hann aftur til Pilatum.

12. Og á þeim dege urdu þeir Pilatus og Herodes viner aftur, Þvíat ádur voru þeir óviner sín á mille.

13. Enn Pilatus samannkalladi prestahøfdinga, og høfudsmenn og lydenn.

14. Og sagde til þeirra: Þer hafed þennann mann til mín haft, svo sem þann, sem fráfnyr folkenu, og siáed, eg hefe yferheyrt hann her fyrer ydur, og á þessum manne finn eg enga af þeim søkum, hvar um þer klaged hann.

15. Og eigi heldur Herodes, Þvíat eg sende ydur til hans, og siáed, at ecki er af hønum gert, þad dauda se verdugt.

16. Fyrer því vil eg gefa hønum rádning, og láta hann lausann.

17. Þvíat hann hlaut þeim einn efter venju hátídardagsins lausann at gefa.

18. Þá kallade upp allur Hópurenn og sagde: burt med þennann, og gef oss Barrabam lausann.

19. Sá var fyrer eitt upphlaup, og mannslag, sem sked var í borg-nne, innsettur í fángelsi.

20. Pilatus kallade þá enn aftur til þeirra og villde Jesum lausann láta.

21. Enn þeir kølludu upp og søgdu: Krossfestu, krossfestu hann.

22. Þá sagde hann enn í þridia sinn til þeirra: Hvad illt hefir þá þesse gert? Enga daudasøk finn eg med hønum, fyrer því vil eg hegna hønum, og láta hann lausann.

23. Enn þeir stódu því fastara þar á med miklum hliódum, æskande þad, at hann yrde krossfestur. Og þeirra hliód og høfudprestanna tóku yfer.

24. Og Pilatus dæmde, at ske skyllde þeirra beidne.

25. Og hann gaf þeim lausann, þann sem sinn var settur fyrer upphlaup og manndráp í myrkrastofu, um hvern þeir bádu, enn hann frammselldе Jesum, efter þeirra vilia

26. Og þá þeir leiddu hann út, høndludu þeir einn, Simon af Cyrene, hver komenn var af akre, og løgdu krossenn uppá hann, at hann bære hann efter Jesu.

27. Enn hønum fylgde efter mikell fiølde fólks og kvenna, hverar grétu hann og aumkudu.

28. Enn Jesus snerest til þeirra og sagde: Þer Dætur af Jerúsalem, grátid eigi yfer mer, helldur grátid yfer ydur siálfum og yfer børnum ydrum.

29. Því siáed! Sá tíme mun koma á hverium segast mun: Sælar eru óbyrlur, og þeir kvider

sem eigi hafa fœdt, og þaug brióst hver eigi voru mylkt.

30. Þá munu þær taka at sega fiöllunum: hryned yfer oss; og hálsunum, hyled oss.

31. Því ef menn gera þetta vid hid blómgada tred, hvad mun þá ske vid hid þurra?

32. Enn tveir spillvirkiar adrer leiddust og út, at þeir yrdu aftekner med hönum.

33. Og sem þeir komu í þann stad, sem kalladest Hausaskeliastadur, þá krossfestu þeir hann þar, og spillvirkana med hönum, einn til hægre sídu, og annann til vinstre.

34. Enn Jesus sagde: Fader! fyrergef þeim, því at þeir vita eigi hvad þeir gera. Og þeir skiptu hans klædum, og vörpudu þar um hlutkeste.

35. Og fólkid stód og sá til. Og höfdingarner spottudu hann med þeim og sögdu: Ödrum hefir hann hiálpad; hiálpe hann nú siálfum ser, ef hann er Christur hinn útvalde Guds.

36. At hönum hæddu og strídsmennerner, gengu til hans og færdu hönum edik.

37. Og sögdu: Ef þú ert konongur Gydinga, þá hiálpa þer siálfum.

38. Enn yferskriftenn var ritud yfer hönum med grískum, latínskum og ebreskum bókstöfum: Þesse er konongur Gydinga.

39. Enn einn af þeim spillvirkum, sem hengder voru, lastade hann og sagde: et þú ert Christur, frelsa siálfann þig og oss.

40. Þá svarade hinn annar, straffade hann og sagde: og þú hrædest eigi helldur Gud, sem ert þó í eins fordæmingu?

41. Og at sönnu sker ockur þetta rettelega, því at vid medtökum hvad vorar gerder voru verdar, enn þesse hefir eigi óskickanlegt gert.

42. Og hann sagde til Jesu: Drottenn, minstu þú mín, þá þú kemur í ríke þitt.

43. Og Jesus sagde til hans: sannlega sege eg þer: í dag skalltu vera med mer í Paradís.

44. Og þad var nær um hina siöttu stund, og myrkur gerdest yfer allt landed, allt til níundu stundar.

45. Og sólenn miste sit skin, og tialldeð Musteresins rifnade midt í tvennt.

46. Og Jesus kallade hárre röddu og sagde: Fader! í hendur þínar fel eg minn anda! og þá hann hafde þetta sagt, gaf hann upp sinn anda.

47. Enn þá höfudsmadurenn sá þad, hvad þar skede, prísade hann Gud, og sagde: at vísu hefur þesse einn rettlátur Madur verid.

48. Og allt fólk, sem þar var hiá og horfde á, sem þeir sáu, hvad þar skede, barde þad sér á brióst, og snere burt aftur.

49. Enn aller hans kunningar stódu lángt frá, og þær konur, sem hönum höfdu eftersylgt úr Galilea, og horfdu á allt þetta.

50. Og siá, einn madur sem het Joseph, einn rádsherra, gódur madur og rettvís.

51. Hann hafde eigi sampyckt þeirra ráde og gerningum, og hann var af borg Gydinga Arimathia, sá sem og beid efter Guds ríke.

52. Þesse geck til Pilatum, og bad um líkamann Jesu.

53. Og tók hann ofann og

sveipade hann í lerefte, og lagde hann í úthøggna grøf, í hverre alldrei hafde nockur madur lagdur vered.

54. Og þat var atfángadagur, og sabbathsdagurenn tók til.

55. Enn þær konur, sem komnar voru med hønum af Galilea, fylgdu efter, og skodudu grøfeña, og hvernenn hans líkami var lagdur.

56. Enn þær sneru aftur, reidande til dyrmætar jurter, og salve. Enn um sabbathsdagenn voru þær kyrrar efter løgmálenu.

## 24. Capitule.

1. Enn á fyrsta dege vikunnar miog snemma, komu þær til grafarennar, og báru dyrmætt salve sem þær høfdu tilbúed, og nockrar med þeim.

2 Og þær fundu, at steinenum hafde vellt vered af grøfenne.

3. Og stigu þar inn, og fundu eigi líkamann Herrans Jesu.

4. Og sem þær efudu her um, siá, þá stódu tveir menn hiá þeim, í skínande klædum.

5. Enn þær urdu hræddar, og slóu sinne ásiónu nidur til jardar; þá søgdu þeir til þeirra: Hvad leited þer hins lifanda hiá daudum?

6. Hann er eigi her, hann er uppriseñ; hugleided, hvad hann talade fyrer ydur, þá hann var í Galilea.

7. Og sagde: At mannsins syne byriade at seliast í syndugra hendur, og krossfestur verda, og á þrida dege úpp at rísa.

8. Og þær minnutust á hans ord.

9. Og þær gengu burt frá grøfenne aftur, og kunngerdu allt þetta þeim ellefu, og svo øllum ødrum.

10. Enn þetta var Maria Magdalena, og Johanna, og Maria Jacobi, og þær adrar med þeim, sem þetta søgdu postulunum.

11. Og þeirra ord virdtest þeim, sem være þat skial, og trúdu þeim eigi.

12. Enn Petur stód upp, og hlióp til grafarennar, og laut þar inn, og sá línklædenn einsømul liggia, geck burt og undrade, hvernenn þat være sked.

13. Og siá, at tveir af þeim gengu þann sama dag til nockurs kauptúns, þat sem var frá Jerusalem sextygu akra lengd, hvert Emaus var at nafne.

14. Og þeir toludu sín á mille, um alla þá hlute, sem vid høfdu bored.

15. Og þat skede, þá þeir svo toludu og spurdust á sín í millum, kom Jesus til þeirra, og geck med þeim.

16. Enn þeirra augu voru svo halldenn, at þeir þecktu hann eigi.

17. Enn hann sagde til þeirra: Hvad er þat syrer rædu, sem þer høndled reikande á vegenum ydar á mille, og erud hriggver út af?

18. Þá svarade einn sem Cleophas var at nafne, og sagde til hans: Ertþu alleina einn af þeim ókendu í Jerusalem, at þú veist eigi hvad á þessum døgum þar inne gerst hefir?

19. Og hann sagde til þeirra: Hvad er þat? Enn þeir søgdu til hans: Þat af Jesu af Nazareth, hann sem var einn spámad-

ur, mektugur í ordum og verkum fyrer Gude og öllu fólke.

20. Hversu vorer höfudprestar og höfdingar-selldu hann í fordæming daudans, og krossfestu hann.

21. Enn ver vonudum, at hann munde endurleysa Israel, og yfer allt þetta er hinn þridi dagur í dag, þá þetta skede.

22. Svo hafa og þar til skelft oss nockorar konur af oss, þær sem snemma höfdu hiá gröfenne vered.

23. Og eigi fundid hans líkama, komu og søgdu sig sed hafa englanna siöner, þeir sem søgdu hann lifa.

24. Og nockorer útaf oss gengu til grafarinnar, og fundu eins líka sem konurnar höfdu sagt, enn hann fundu þeir eigi.

25. Og hann sagde til þeirra: O þer heimsker, og treger í hiarta, at trúa því öllu, hvad spámenneuer hafa talad?

26. Atti Christus eigi þetta at lída og inngánga í sína dyrd?

27. Og hann tók til frá Moyse og öllum spámönnum, og lagde út fyrer þeim allar ritningar, þær af hönum voru.

28. Og þeir tóku at nálgast kauptúnid, þat þeir gengu til, og hann let þá, sem villde hann lengra gánga.

29. Þeir neyddu hann og søgdu: Verthú hiá oss, þvíat kvölldа tekur og á dagen lídur, og hann geck inn at vera hiá þeim.

30. Og þat skede, þá hann sat med þeim til bords, at hann tók brauded, gerde þacker, og braut þat, og rette at þeim.

31. Þá opnudust þeirra augu, og þeir þeckthu hann, og hann vard ósynelegur fyrer þeim.

32. Og þeir søgdu sín á mille: Brann eigi vort hiarta í oss; þá hann talade vid oss á vegenum, og opnade fyrer oss ritningarnar?

33. Og þeir stódu upp á sömu stundu, og sneru aftur til Jerusalem, og fundu þá ellefu samansafnada, og þá sem med þeim voru.

34. Hverer søgdu: Drottinn er sannarlega upprisinn, og hefir birtst Simone.

35. Og þeir tiádu þeim, hvad gerst hafde á vegenum, og hverninn hann vard þecktur af þeim, í því hann braut brauded.

36. Enn sem þeir voru at tala þetta, ste Jesus siálfur midt í mille þeirra, og sagde til þeirra: Fridur se med ydur.

37. Enn þeir skelfdust, og urdu hrædder, og meintu, at þeir sæu anda nockurn, og hann sagde til þeirra:

38. Því erud þer svo hrædder, og því koma slíker þánkar í ydar hiörtu?

39. Siáed mínar hendur og mínar fætur, at eg em þat siálfur; þreifed þer á mer og skoded, þvíat ande hefir hverke hold ne bein, svo sem þer siáed mig hafa.

40. Og þá hann sagde þat, synde hann þeim hendur og fætur.

41. Og þá þeir trúdu enn eigi fyrer fagnadar saker, og undrudu þat, sagde hann til þeirra: Hafed þer her nockud at eta?

42. Og þeir løgdu fyrer hann stycke af steiktum fiske, og hunángs köku.

43. Og hann tók þat, og at fyrer þeim.

44. Og hann sagde til þeirra: Þetta eru þau ord, hver eg talade til ydar, þá eg var enn nú hiá ydur, þvíat þat hlytur allt at fullkomnast, hvad af mer var skrifad í Moysis lögmále, spámannabókum og psalmum.

45. Þá opnade hann þeirra skilning, svo at þeir skildu ritningarnar.

46. Og sagde til þeirra: Svo er þat skrifad, og svo byriade Christo at lída, og upp at rísa á þrida dege af dauda.

47. Og predika láta í sínu nafne idran og syndanna fyrergefning, á medal allra þióda, og upphefia til Jerusalem.

48. Enn þer erud vottar allra þessara hluta.

49. Og siáed, at eg vil senda yfer ydur fyrerheit míns födurs: enn þer skulud vera kyrrer í borgenne Jerusalem, þángat til, at þer íklædest krafte af hædum.

50. Enn hann hafde þá út allt til Bethaniam, og hóf upp sínar hendur og blessade þá.

51. Og þat gerdest, þá hann blessade þá, at hann skilldest vid þá, og fór upp í himenenn.

52. Enn þeir tilbádu hann, og snern aftur til Jerusalem med miklum fagnade.

53. Og voru alltíd í musterenu vegsamande og lofande Gud.

Ender S. Lucæ Gudspialls.

# S. Johannis Evangelium.

## 1. Capitule.

1. Í upphafe var ord, og þat ord var hiá Gude, og orded var Gud.

2. Þat sama var í upphafe hiá Gude.

3. Aller hluter eru fyrer þat gerder, og án þess er ecki igert, hvad gert er.

4. Í hönum var lífed, og lífed var lióß mannanna.

5. Og lióßid skein í myrkrunum, og myrkurenn hafa þat eigi höndlad.

6. Þar var einn madur af Gude sendur, sa het Johannis.

7. Hann kom til vitnisburdar, at hann bære vitnisburd af lióßinu, at aller skylldu fyrer hann trúa.

8. Eigi var hann lióßed, helldur at hann bære vitnisburd af lióßenu.

9. Þat var þat sanna lióß, hverl upplyser alla menn, sem koma í þennann heim.

10. Þat var í heimenum, og heimurenn var fyrer þat gerdur, og heimurenn þeckte þat eigi.

11. Hann kom til sinnar eignar, og hans eignir medtóku hann eigi.

12. Enn svo marger, sem hann medtóku, þá gaf hann þeim makt Guds börnum at verda, þeim sem á hans nafn trúa.

13. Þeim sem eigi af blódenu, ne af holldsins villd, ne mannsins vilia, helldur þeim sem af Gude eru borner.

14. Og orded var holld, og

bygde med osk, og ver sáum hans dyrd, dyrd svo sem eingetins sonar af födurnum, fullann nádar og sannleika.

15. Johannes vitnade af hönum, kallade og sagde: Þesse var sá, um hvern eg sagde, at efter mig skyllde koma, sá sem fyrer mig var, þvíat hann var fyrr enn eg.

16. Og af hans fyllingu höfum ver aller teked nád fyrer nád.

17. Þvíat lögmáled er fyrer Moysen utgefed, enn nád og sannleikur er fyrer Jesum Chryst um ordenn.

18. Eingenn hefir nockurn tíma Gúd seyann: sá eingetne sonurenn, sem í födursins skaute er, hann hefir osk þetta kunngert.

19. Og þetta er vitnisburdur Johannis, þá þeir Judar sendu af Jerusalem presta og levita, at þeir skylldu spyrja hann: hver ert þú? og hann kendest og neitade eige.

20. Og hann kendest: eigi em eg Christur.

21. Þeir spurdu hann at, hvad þá? ertþu Elias? hann sagde: eige em eg. ertþu spámadur? enn hann ansade: nei

22. Þá sögdu þeir til hans: hvad ertþú þá? svo at ver megum andsvar gefa þeim osk utsendu, hvad seger þú af siálfum þer?

23. Hann sagde: eg em eins predikara rödd í eydemörku, greided þer vegu Drottens, svo sem sagde Esaias spámadur.

24. Og þeir sem útsendust voru af Phariseis.

25. Þeir atspurdu hann og sögdu hönum: Því skírer þú þá, ef þú ert eigi Christur, ei Elias, og eigi spámadur?

26 Johannes svarade þeim og sagde: eg skíre med vatne; enn hann er geingenn midt á medal ydar, hvern þer þecked eige.

27. Hann er sá sem efter mig mun koma; sá sem fyrer mig hefir verid, hvers skóþvenge eg em ei verdur at uppleysa.

28. Þetta skede í Bethabara hinum megenn Jordanar, hvar Johannes skírde.

29. Enn annars dags þar efter ser Johannes Jesum komande til sín, og mællte: siáed! þar er þad lambid Guds, hvert ed ber heimsins synder.

30. Sá er, af hverium eg sagde ydur: efter mig kemur Madur, sá fyrer mig var, þvíat hann var fyrr enn eg.

31. Og eg þeckte hann eigi, helldur at hann yrde openber í Israel, fyrer því kom eg at skíra med vatne.

32. Og Johannes vitnade, og sagde: eg sá andann ofann stíga af Himnum í dúfu líke, og hann stadnæmdist yfer hönum.

33. Og eg þeckte hann eigi, enn sá mig sende at skíra med vatne, hann sagde mer: yfer hvern þú ser andann nidurstíga, og yfer hönum vera, hann er sá, sem skírer med heilögum Anda.

34. Og eg sá þad, og vitnade, at sá er Guds sonur.

35. Enn annars dags, stód Johannes aftur enn, og tveir af hans læresveinum.

36. Og sem hann leit Jesum gánga, seger hann: siáed, þad er lamb Guds!

37. Og þeir tveir læresveinar

heyrdu hann tala, og fylgdu Jesu efter.

38. Enn Jesus snere aftur, og leit þá ser fylgande, og sagde þeim: at hverum leited þer? þeir sögdu hönum: Rabbi, þad þydest meistare, hvar átu þu heima?

39. Hann sagde þeim: komed og siáed. Þeir komu og sáu þad, og voru hia hönum þann dag, enn þad var nær tíundu stundu.

40. Einn af þessum tveimur sem heyrdu af Johanne, og Jesu efterfylgdu, var Andreas, broder Simonar Petri.

41. Hann fann þá ádur sinn bróder Simon, og sagde til hans: ver höfum funded Messiam hvad útlegst, smurdur.

42. Og fylgde hönum til Jesu: þá Jesus leit hann, mælte hann: þú ert Simon sonur Jonas; þú skallt kallast Cephas, þad útlegst, hellusteinn.

43. Annars dags þar efter, villde Jesus ferdast til Galileam. Hann fann Philippum og sagde til hans: fylg þú mer efter.

44. Enn Philippus var af Bethsaida, úr þeirra borg Andresar og Petrus.

45. Philippus fann Nathanael, og sagde hönum: ver höfum þann fundeð, um hvern Moyses í lögmálenu og spámennerner hafa skrifad, Jesum Josephs son af Nazareth.

46. Nathanael sagde til hans: hvad má af Nazareth godt koma? Philippus sagde hönum: kom og siá þad.

47. Jesus sá Nathanael koma til sín, og sagde af hönum: siáed, einn sannann Israelita, í hverum eingenn svik ern.

48. Nathanael sagde til hans: hvar af þecker þú mig? Jesus svarade og sagde til hans: ádur enn Philippus kallade á þig: þá þú varst under fíkiutrenu, sá eg þig.

49. Nathanael svarade og sagde til hans: Rabbi, þú ert Guds sonur. Þú ert kongur Israels.

50. Jesus svarade og sagde vid hann: Þú trúder, af því eg sagde þer, at eg hefde sed þig under fíkiutrenu, siá munt þú enn þessu meira.

51. Og hann sagde hönum: Sannlega, sannlega sege eg ydur: Upp frá þessu munud þer siá himenenn openn, og engla Guds stíga upp og ofann yfer mannsins son.

## 2. Capitule.

1. Og á þrida dege vard brúdkaup til Cana í Galilea, og þar var móder Jesu.

2. Enn Jesus var bodenn, og hans læresveinar, til brúdkaupsins.

3. Og sem þá þraut vín, sagde móder Jesu til hans: Þeir hafa eigi vín.

4. Jesus sagde til hennar: Þú kona, hvad hefi eg med þig at gera? Mín stund er eigi enn komenn.

5. Móder hans sagde til þenaranna: Hvad hellst hann seger ydur, þat gered.

6. Enn þar voru sex vatnsker af steine, sett efter venin Gydinganna hreinsunar, og hvert þeirra tók tvo eda þriá mælera.

7. Jesus talade til þeirra: Fylled upp vatnskerenn af vatne; og þeir fylltu þau allt á barma.

8. Og hann sagde þeim; Ausid

nú upp og færed kæmeistaranum, og þeir færdu honum.

9. Enn þá kæmeistarenn smackade víned, þat vatn hafde verid, og visse eigi hvadann þat kom, enn þiónustumennerner sem vatnid jusu, vissu þat, þá kallar kæmeistarenn á brúdgumann.

10. Og seger honum: Aller menn gefa í fyrstu þat góda víned, og nær þeir gerast ölvader, þá þat hid lettara: Enn þú hefir geymt hid góda víned allt til þessa.

11. Þetta er hid fyrsta jarteitn, þat Jesus gerde, sem skede í Cana í Galilea, og hann opinberade sína dyrd, og hans læresveinar trúdu á hann.

12. Þar efter fór hann ofan til Capernaum, hann og móder hans, brædur hans, og læresveinar, og voru þar eigi lenge.

13. Þá voru nálæger páskar Gydinga. Og Jesus fór upp til Jerusalem.

14. Og fann í musterenu stiande þá, sem höfdu til kaups, naut, saude, dúfur, og þá sem umskifte gerdu á peningum.

15. Þá gerde hann ser svipu af strengum, og rak þá alla út af musterenu, med nautum og saudum, og hratt nidur peningum og bordum þeirra, sem umskiftenn gerdu.

16. Og sagde vid þá, sem dúfurnar seldu: Bered þer þetta burt hedann, og gered eigi míns fodurs hús at solubúsi.

17. Hans læresveinar hugsudu þá um, hvad skrifad er: Vandlæting húss þíns át mig.

18. Þá ansudu Judar og sögdu honum: Hvert teikn syner þú oss, at þú meger þetta gera?

19. Jesus svarade og sagde þeim: Brióted þetta musteret, enn eg vil á þrida dege þat uppreisa.

20. Þá sögdu Gydingar: Þetta mustere er uppbygt i sex og fiorutiu ár, enn þú villt uppreisa þat á þrem dögum?

21. Enn hann talade um mustere síns líkama.

22. Og þá hann var af dauda upprisinn, hugleiddu hans læresveinar, at hann hafde þetta mællt, og trúdu ritningunne, og þeim ordum, sem Jesus hafde talad.

23. Enn sem hann var í Jerusalem á páskahátídenne, þá trúdu marger á hans nafn, þegar þeir sán þau tákn, sem hann gerde.

24. Enn Jesus trúde þeim eigi fyrer sig, af því at hann þeckte þá alla.

25. Og þurfte eigi vid, at nockur bære af mannenum vitne, því at hann siálfur visse, hvad med mannenum var.

## 3. Capitule.

1. Þar var einn madur á medal Phariseanna, Nicodemus at nafne, hann var einn af höfdingum Gydinga.

2. Hann kom til Jesu um nótt og sagde til hans: Meistare, ver vitum, at þú ert einn lærefader af Gude komenn, því at eingenn getur gert þau tákn, sem þú gerer, nema Gud se med honum.

3. Jesus svarade og sagde til hans: Sannarlega, sannarlega sege eg þer, nema svo se, at nockur verde at nyu fæddur, hann kann eigi at siá Guds ríke.

4. Þá sagde Nicodemus til hans:

Hvernenn kann madurenn at fædast þá hann er gamall? Eda fær hann stiged aftur í sinnar módur kvid og fædst svo?

5. Jesus svarade: Sannlega, sannlega sege eg þer, neina svo se, at nockur verde fæddur af vatne og af anda, þá getur hann eigi inngengid í Guds ríke.

6. Hvad af holldenu er fædt, þat er holld, og hvad af andanum er fædt, þat er ande.

7. Undrast þú eigi, þó eg sege þer, at ydur byriade at nyu, at fædast.

8. Vindurenn blæs, hvar hann vill, og þú heyrer hans þyt, enn eigi veitstþu hvadann hann kemur, eda hvert hann fer; svo er hver sá sem af andanum er fæddur.

9. Nicodemus svarade og sagde til hans: Hvernenn má slikt ske?

10. Jesus svarade og sagde til hans: Ertþú meistare í Israel og veitstþu eigi þetta?

11. Sannlega, sannlega sege eg þer: at ver segum þat ver vitum, og vitnum þat ver sed höfum, og vort vitne medtaked þer eigi.

12. Og ef þer trúed eigi, þá eg seige ydur af jardneskum hlutum, hverneun munud þer trúa méga, ef eg sege ydur af himneskum hlutum?

13. Og eingenn mun fara til himna, nema sá sem ofanun af himnum hingat er komenn, sem er mannsins sonur, sá sem er á himne.

14. Og svo sem Moyses upphafde höggormenn í eydemorku, líka svo byriar mannsins syne at upphefiast.

15. At aller þeir, sem á hann trúa, fortapest eigi, helldur at þeir hafe eylíft Líf.

16. Svo elskade Gud heimenn, at hann gaf út sinn eingetenn son til þess, at aller þeir sem á hann trúa, fyrerfarest eigi, helldur at þeir hafe eylíft Líf.

17. Því eigi sende Gud sinn son í heimenn, at hann dæmde heimenn, helldur at heimurenn frellsist fyrer hann.

18. Hver á hann trúer, dæmest eigi; enn hver hann trúer eigi, hann er nú þegar dæmdur, þvíat hann trúde eigi á nafn eingetins Guds sonar.

19. Enn þesse er dómurenn: Liósid kom í heimenn, og menn elskudu meir myrkred enn liósed því þeirra verk voru vond.

20. Hver ílla gerer, sá hatar liósid, hann kemur og eigi til lióssins, at eige straffest hans verk.

21. Enn hver sannleikann gerer, hann kemur til Lióssins, svo at hans gerder verde augliósar, þvíat þær eru í Gude gerdar.

22. Efter þetta kom Jesus og hans læresveinar til Gydingalands, og hafde sitt adsetur, þar hiá þeim, og skírde.

23. Enn Johannes skírde og svo vid Enon nærre Salim, þvíat þar voru vötn mörg. Þeir komu þángat, og letu skíra sig.

24. Þvíat Johannes var eigi þá innlátenn í myrkrastofu.

25. Enn þá hófst ein spurning af læresveinum Johannis vid Gydinga, um hreinsunena.

26. Og þeir komu til Johannem, og sögdu honum: Meistare, sá sem hiá þer var hinummegenn Jordanar, af hverum þú barst

vitne, siá, hann skírer, og hver Madur kemur til hans.

27. Johannes svarade og sagde: Madur fær eigi medtekid nockud, nema hønum verde þad af Himnum gefid.

28. Þer erud siálfer mín vitne, at eg sagde: at eg være eigi Christur, helldur at eg være fyrer hønum sendur.

29. Hver brúdena hefir, sá er brúdgumenn, enn vinur brúd gumans er sá, sem stendur og hlyder hønum, og gledur sig yfer brúdgumans roddu, sá same minn fagnudur er nú uppfylltur.

30. Hønum ber at vaxa, enn mer at minka.

31. Sá sem ofan kemur, hann er yfer øllum: hver hann er af Jørdu, hann er af jørdu, og um jørdena talar hann: enn sá sem kemur af Himne, hann er yfer øllum.

32. Og hvad hann sá og heyrde, þad vitnar hann, og eingenn tekur hans vitnisburd.

33. Enn hver hann medtekur, sá innsiglar þad, at Gud se sannur.

34. Því hann, hvern Gud sender, sá talar Guds Ord, þvíat eigi gefir Gud anda af skamte.

35. Faderenn elskar sonen, og allt gaf hann í hans hendur.

36. Hver hann trúer á sonenn, sá hefir eylíft líf; enn hver hann trúer eige á sonenn, hann mun eige siá lífid, helldur blífur Guds reide yfer hønum.

## 4. Capitule.

1. Enn þá Drottenn fornam nú, at Pharisei høfdu heyrt, at Jesus, gerde fleyre læresveina enn Johannes, og skírde,

2. Þótt Jesus skírde eigi siálfur, helldur hans læresveinar.

3. Þá forlet hann Gydingaland, og fór aftur til Galileam.

4. Enn hann átte at reisa um Samariam.

5. Þá kom hann í eina samverska borg, þá Sichar heiter, nærre því akurlende, sem Jacob gaf syne sínum Joseph.

6. Og þar var brunnur Jacobs. Sem Jesus var nú ordenn vegmódur, þá sat hann á brunnenum, þad var nærre um siøttu stundu.

7. Þá kom ein kona út af Samaria, vatn at ausa. Jesus sagde til hennar: gef þú mer at drecka.

8. Því hans læresveinar voru gengner inn í borgena fædslu at kaupa.

9. Þá seger sú samverska kona til hans: hvernenn bidur þú mig drycks, þar þú ert einn Jude, enn eg em ein samversk kona? Þvíat eige hafa Judar nockora umgengne med Samverskum mønnum.

10. Jesus svarade og sagde til hennar: ef þú þeckter Guds giøf, og hver hann være, sá þer seger: gef mer at drecka, þá beidder þú hann, at hann gæfe þer lifande vatn.

11. Þá sagde konann til hans: Herra, þú hefir eigi þad, sem þú getur ausid med, enn hátt er ofann í brunnenu, eda hvadann hefir þú þad lifande vatn?

12. Edur ert þú meire fødur vorum Jacob, sá sem gaf oss þennann brunn? hann drack af

hønum og børn hans, og hans fenadur.
13. Jesus svarade og sagde henne: Hver sem dreckur af þessu vatne, hann þyrster aftur.
14. Enn hver hann dreckur af því vatne, sem eg mun gefa hønum, hann skal ey þyrsta eylíflega, helldur þad vatn, sem eg gef hønum, mun verda í hønum vatns brunnur, sem flytur til eylífs lífs.
15. Konann sagde til hans: Herra, gef mer þetta vatn, svo mig þyrste eigi, og at eg skule eigi koma híngat til vatnsaustrs.
16. Jesus sagde til hennar: Far þú, og kalla á mann þinn og kom híngat,
17. Konann svarade og sagde: eigi hef eg mann. Jesus sagde til hennar: Þú seger rett eigi hefi eg mann.
18. Þvíat þú hefir fimm menn haft, og þann þú hefir nú, er eigi þinn madur, þetta sagder þú satt.
19. Konann sagde til hans: Herra! eg se at þú ert einn spámadur.
20. Fedur vorer hafa á þessu fialle tilbeded: enn þer seged, til Jerusalem se sá stadur, þar menn eigi at tilbidia.
21. Jesus sagde henne: Kona, trú mer, sú stund kemur, at hverke á þessu fialle, ne til Jerusalem munu þeir tilbidia fødurenn.
22. Þer tilbided þad, þer vited eigi, enn ver vitum hvad ver tilbidium, þvíat heilleun er af Judum.
23. Enn sá tíme kemur, og er nú þegar, at sanner tilbidendur munu tilbidia fødurenn í anda og sannleika, af því, at Faderenn vill hafa þá, sem hann svo tilbidia.
24. Gud er ande, og hveret hann tilbidia, þeir skulu tilbidia hann í anda og sannleika.
25. Konann sagde til hans: Eg veit at Messias kemur, sá sem Christur kallast, og nær hann kemur, þá mun hann undervísa oss allt.
26 Jesus sagde henne: Eg em hann, sá sem vid þig talar.
27. Og í því bile komu hans læresveinar at, og undrudust at hann talade vid eina kvinnu. Þó sagde engenn: at hveru spyr þú, eda hvad mælér þú vid hana.
28. Enn konann skildest þar vid sína krús, og geck inn í stadenn, og sagde til fólksins:
29. Komed og siáed einn mann, sem mer sagde allt þad eg hefe gert, hvert hann er eigi Christur?
30. Þá gengu þeir út af stadnum, og komu til hans.
31. Enn þess á mille minntu hans læresveinar hann á og søgdu: Rabbi, neyt þú.
32. Enn hann sagde til þeirra: eg hefi þá fædu til at neyta, af hverre þer vited eigi.
33. Þá søgdu læresveinarner sín á mille: eda hefir nockur fært hønum at eta?
34. Jesus sagde til þeirra: minn matur er sá, at eg gere þess vilia, sem mig hefir sendt, og fullkomne hans verk.
35. Seged þer eigi siálfer, at þad eru enn fiórer manuder, þá kemur kornskerutímenn; siáed, eg sege ydur: lífted upp augum ydrum, og siáed akurløndenn, at þau eru nú þegar hvít til kornskurdarens.
36. Og hver sem uppvinnur,

sá tekur laun, og safnar ávexte til eylífs lífs. Svo at þar glede sig hver med ødrum, sá sem sáer, og sá sem uppvinnur.

37. Því sannast her þad ordtak, at annar se, sa sem sáer, enn annar sá sem uppvinnur.

38. Eg sende ydur upp, at vinna þad þer erfidudur eigi, adrer hafa erfidad, og þer erud komner inn í þeirra erfide.

39. Marger Samversker menn af þeim sama stad trúdu á hann, fyrer konunnar ord, sem svo vitnade: hann sagde mer allt, hvad eg gert hefe.

40. Enn þá hiner Samversku voru til hans komner, bádu þeir hann, at hann være hiá þeim, og hann var þar tvo daga.

41. Og miklu fleyre trúdu fyrer hans Ord.

42. Og søgdu til konunnar: eigi trúum ver nú framar fyrer þín ord, því at ver siálfer heyrdum, og vitum, at þesse er sannarlega Christur, lausnare heimsins.

43. Enn tveimur døgum þar efter, fór hann þadann, og reiste til Galileam.

44. Því at Jesus vitnade þad siálfur, at einn spámadur er í engu gillde á sínu egenn føburlande.

45. Þá hann kom í Galileam, medtóku hann Galileisker menn, sem sed høfdu allt, þad hann gerde til Jerusalem á hátídinne, því þeir høfdu og komed til hátídardagsins.

46. Og Jesus kom aftur til Cana í Galilea, þar hann hafde gert vatn at víne. Og þar var einn konunglegur madur, hvers sonur lá siúkur til Capernaum.

47. Þesse heyrde, at Jesus var komenn af Gydingalande í Galileam, og fór til hans, og bad hann, at hann fære ofann og hiálpade syne hans, því at hann være daudsiúkur.

48. Og Jesus sagde til hans: þegar þer siáed ecke teikn og stórmerke, þá trúed þer eigi.

49. Þá sagde sá konunglege madur til hans: Herra! far ofaun, ádur enn mitt barn andast.

50. Jesus sagde hønum: far þú, sonur þinn lifer, og madurenn trúde því orde, sem Jesus sagde hønum, þadan.

51. Enn í því hann fór ofan efter, mættu hans þenarar hønum, og kunngerdu hønum segande: þitt barn lifer.

52. Þá spurde hann upp þann tíma af þeim, á hverum hønum hefde batnad. Og þeir søgdu hønum: í gær um siøundu stund yfergaf kaldann hann.

53. Þá formerkte Faderenn, at þad var um þann tíma, á hverum Jesus sagde hønum: sonur þinn lifer. Og hann trúde og allt hans hús.

54. Þetta er nú þad annad Jarteikn, sem Jesus gerde, þá hann kom af Gydingalande til Galileam.

## 5. Capitule.

Efter þad var ein hátid Gydinga, og Jesus fór upp til Jerusalem.

2. Enn í Jerusalem hiá fiárhúsunum er eitt vatnsdíke, sem kallast á Ebresku Bethesda, hafande fimm forbyrge.

3. Í þeim lá mikell fiølde siúkra manna, blindra, halltra, vis-

nadra, bídande efter vatnsins hræringu.

4. Þvíat engell ste ofann í tilsettann tíma í díked, og hrærde upp vatned, hver sem nú fyrstur ste þar ofann í efter vatnsins hræringu, sá vard heill, af hverre sótt sem hann var halldenn.

5. Þar var einn sá madur, sem þriátíu og átta ár hafde siúkur leged.

6. Þá Jesus leit þennan liggande, og fornam, at hann hafde svo leged, seger hann til hans: villtþú heilbrigdur verda?

7. Hinn siúke svarade hønum: Herra! eg hefe eigi nockorn mann, þá vatnid hræreſt, at láta mig í díked, því nær eg kem at, þá stígur annar fyrre sun enn eg.

8. Jesus sagde til hans: Ris upp, tak sæng þína, og gack burt!

9. Og strax vard sá madur heilbrigdur, og tók sína sæng og geck þadan: enn sá same dagur var sabbathsdagur.

10. Þá søgdu Gydingar hønum, sem heilbrigdur var ordenn: Þad er í dag sabbathsdagur, eigi hæfer þer at bera sængina.

11. Hann svarade þeim: sá mig heilann gerde, hann sagde mer: tak sæng þína og gack burt.

12. Þá spurdu þeir hann at: hver er sá madur, sem þer sagde: tak sæng þína og gack?

13. Enn sá sem heilbrigdur var ordenn', visse eigi hver hann var, þvíat Jesus hafde viked í burt frá fólkenu, sem þar var í þeim stad.

14. Efter þat hitte Jesus hann í musterenu, og sagde til hans: Siá, nú ertþú heill ordenn, syndga nú eigi framarmeir, svo at þig hende eigi eitt hvad verra.

15. Sá madur fór og undervísade Gydingum, at þat være Jesus, sem hann hefde gert heilann.

16. Þar fyrer offóktu Gydingar Jesum, og leitudust vid at deyda hann, af því at hann gerde þetta á sabbathsdege.

17. Jesus svarade þeim: Fader minn verkar allt hingat til; eg verka og.

18. Enn fyrer þetta sóktu Gydingar meir til at deyda hann, þvíat hann braut eigi einasta sabbathed, helldur sagde og svo, at Gud være sinn fader, gerande sig siálfann Gude jafnann.

19. Jesus svarade og sagde til þeirra: Sannlega, sannlega sege eg ydur: sonurenn fær eigi af siálfum ser gert, nema hvad hann ser fødurenn gera, þvíat hvad hellst hann gerer, þat gerer og eins líka sonurenn.

20. Því faderenn elſkar sonenn, og syner hønum allt, þat hann gerer, og enn mun hann syna hønum ønnur verk meire, svo þer munud undrast.

21. Þvíat, svo sem faderinn uppvekur dauda, og lífgar, svo lífgar og sonurenn þá, sem hann vill.

22. Því eigi dæmer faderenn nockurn, helldur gaf hann syneum allann dóm.

23. At aller heidre sonenn, svo sem þeir heidra fødurenn; hver hann heidrar eigi sonenn, sá heidrar eigi fødurenn, sem hann sende.

24. Sannlega, sannlega sege eg ydur: Hver mín ord heyrer og trúer þeim, sem mig sende,

sá hefir eylíft líf, og eigi kemur hann í dóm, helldur hefir hann þreyngst gegnum frá daudanum til lífsins.

25. Sannlega, sannlega, sege eg ydur, at sú stund kemur, og er nú allareidu, at dauder munu heyra rødd Guds sonar, og þeir sem hana heyra, munu lifa.

26. Þvíat líka sem faderenn hefir lífid í siálfum ser, svo gaf hann syninum at hafa líf í ser siálfum.

27. Hann gaf honum og valld til at hallda dóm, af því, at hann er mannsins sonur.

28. Eigi skulud þer undrast þetta, þvíat sú stund mun koma, á hverre, aller þeir sem í grøfunum eru, skulu heyra hans rødd.

29. Og þeir munu þá framm gánga, sem godt gerdu, til lífsins upprisu, enn þeir sem illt gerdu, til dóms upprisu.

30. Eigi kann eg af mer siálfum at gera nockud: eins og eg heyrde, svo dæme eg, og minn dómur er rettur, þvíat eg leita eigi míns vilia, helldur fødursins vilia, þess sem mig sende.

31. Ef eg ber mer siálfum vitne, þá er mitt vitne eigi satt.

32. Þar er annar sem af mer ber vitne, og eg veit hans vitne er satt, þat hann ber af mer.

33. Þer sendud til Johannem, og hann bar af sannleikanum vitne.

34. Enn eg tek eigi vitne af mønnum, helldur sege eg þetta, uppá þat þer hiálpest.

35. Hann var eitt logande og skínande liós, enn þer villdud skamma stund glediast af hans lióse.

36. Eg hefe enn meira vitne enn Johannis vitne, þvíat þau verk, sem faderenn gaf mer, at eg fullkomne, þau sømu verk sem eg gere, bera mer vitne, at faderenn hafe mig sendt.

37. Og faderenn, sá sem mig sende, hann siálfur bar mer vitne; eigi hafed þer nockurn tíma heyrt hans rødd, ne sed hans mind.

38. Og hans ord hafed þer eigi í ydur búande, þvíat þeim hann sende, trúed þer eigi.

39. Rannsaked ritningarna, þvíat þer meined ydur í henne at hafa eylíft líf, og hún er sú, hver af mer ber vitne.

41. Eg tek enga dyrd af mønnum.

42. Enn eg þecke ydur, at þer hafed eigi Guds elsku í ydur.

34. Eg kom í míns fødurs nafne, og þer medtaked mig eigi: ef annar kemur í sínu eigenn nafne, þann medtaked þer.

44. Hvernenn meged þer trúa, þar sem þer taked innbyrdis dyrd hver af ødrum? Og þá dyrd, sem af siálfum Gude er, hennar leitid þer eigi.

45. Eigi skulud þer þat meina, at eg munе klaga ydur fyrer fødurnum; þar er einn sem ydur klagar, Moyses, á hvern þer voned.

46. Ef þer trydud Moysi, svo trydud þer og mer, þvíat af mer skrifade hann. Enn ef þer trúed eigi hans skrife, hvernenn meged þer þá mínum ordum trúa?

## 6. Capitule.

1. Efter þad for Jesus burt, yfer um, sióenn hiá stadnum Tiberias í Galilæa.

2. Og mikell mannfiölde fylgde hönum efter, af þvi þeir sáu þau teikn, sem hann gerde á siúkum.

3. Jesus geck þá uppá eitt fiall, og setteſt þar med ſinum Læreſveinum.

4. Og þá var og Páſka hátíd Gydinga nálæg.

5. Jesus hóf þá upp ſin augu, og ſá at margt fólk dreif at hönum. Þá ſagde hann vid Philippum: Hvar kaupum ver braud, at þeſſer neyte?

6. Enn þetta ſagde hann af þvi, at hann villde reyna hann, þviat hann viſſe vel, hvad hann villde gera.

7 Philippus ſvarade hönum: Braud fyrer tvöhundrud Peninga, nægeſt þeim eigi, ſvo at hver einn fáe nockud litid.

8. Þá ſagde hönum einn af hans Læreſveinum, Andreas bróder Simonar Petri.

9. Her er einn litell pilltur, ſá hefir fimm byggbraud og tvo fiſka.

10. Enn hvad er þat á medal ſvó margra? Þá ſagde Jesus: ſkiped fólkenu í ſæte. Þar var í þeim ſtad miked gras. Þá ſettuſt nidur nær fimm þúſunder manns.

11. Jesus tók braudenn og gerde þacker, og feck ſinum Læreſveinum, enn Læreſveinarner fengu þeim ſem nidur höfdu ſetſt. Líka einnenn af fiſkunum ſvo mikid, ſem hann villde.

12. Er þá þeir voru metter, ſagde hann til ſinna Læreſveina: ſamann berid Leifar ſem afgánga, ſvo eigi ſpilleſt.

13. Enn þeir ſöfnudu ſamann og fylltu upp tólf karfer med þeſſar leifer af fimm byggbraudum, ſem þeir leifdu, ſem mat höfdu fenged.

14. Þá menn ſáu þad, at Jesus gerde þetta teikn, ſögdu þeir: Þeſſe er ſannarlega ſa ſpámadur ſem í heimenn ſkal koma.

15. Enn þá Jesus formerkte, at þeir mundu koma at grípa hann, og gera hann at konunge, ſlyde hann einn upp aftur á fialled.

16. At kvölldе gengu hans Læreſveinar ofan til ſiáfar.

17. Og ſtigu á ſkip, og komu yferum ſióenn til Capernaum, og þá var þegar myrkt ordid. Jesus var þá eigi komenn til þeirra.

18. Enn ſiórenn tók at æſaſt upp af miklu vedre.

19. Þeir höfdu þá róed fimm og tuttugu, edur þriátíge akraleingder, þá ſáu þeir Jesum gángande á ſiónum, og komenn nær ſkipenu. þeir óttuduſt þá.

20. Enn hann ſagde til þeirra: eg em þad, óttiſt þer eigi.

21. Þá villdu þeir hafa teked hann inn á ſkiped, og jafnſnart var ſkiped komed at því Lande, ſem þeir fóru til.

22. Annann dag efter, ſá folked, ſom hinumeigenn ſiáfarens ſtód, at eigi var þar annad ſkip til, nema þad eina, ſem hans læreſveinar höfdu áſtigid, og Jesus hafde eigi ſiálfur ſtigid á þad ſkip med ſinum læreſveinum, helldur voru hans læreſveinar einer af ſtad farner.

23. Þar komu og yfer um onnur ſkip frá Tiberías, hart nær þeim ſtad, ſem þeir höfdu braudenn eted fyrer Herrans þackargerd.

24. Og þá fólkid ſá nú, at Jesus var eigi þar, og eigi helldur hans læreſveinar, ſte þad á

skipenn, kom til Capernaum, og leitade at Jesu.

25. Og þá þeir høfdu funded hann hinumegenn siafarins, søgdu þeir til hans: Rabbi, nær komstu hingat

26. Jesus svarade þeim og sagde: sannlega, sannlega sege eg ydur: þer leitid mín eigi af því at þer sáud teiknenn, helldur af því, at þer neyttud af braudunum, og urdud sadder.

27. Verkid ædu, eige þeirrar sem forgengur, helldur þeirrar sem stødug blífur til eylífs lífs, hvera mannsins sonur mun gefa ydur, þviat Gud fader hefir hann innsiglad.

28. Þá søgdu þeir til hans: hvad skulum ver þá gera, svo ver gerum Guds verk?

29. Jesus svarade og sagde þeim: þad eru Guds verk, at þer trúed á þann, sem hann sende.

30. Þá søgdu þeir til hans: hvad gerer þú tyrer teikn, svo at ver siáum, og trúum þer? hvad gerer þú?

31. Fedur vorer átu manna í eydemørku, sem skrifad stendur: hann gaf þeim at eta braud af himne.

32. Þá sagde Jesus til þeirra: sannlega, sannlega sege eg ydur, at eigi gaf Moyses ydur braud af himne, helldur gefur fader minn ydur þad retta braud af himne.

33 Því þad er Guds braud sem kemur af himne, og heimenum gefur Líf.

34. Þeir søgdu þá vid hann: Herra, gef þú oss, jafnann þetta braud.

35. Enn Jesus sagde til þeirra: eg em lífsins braud: hver hann kemur til mín, þann mun eigi hungra, og sá, sann trúer á mig, hann mun alldrei þyrsta.

36. Enn eg hefe sagt ydur, at þer hafed mig senann, og trúed þó eigi.

37. Allt hvad minn fader gefur mer, þad kemur til mín, og hvern þann, sem til mín kemur, þann mun eg eigi útreka.

38. Því at eg em komenn af himne, eigi uppá þad, at eg gere minn vilia, helldur hans, sem mig sende.

39. Þetta er fødursins vili, þess sem mig sende, at eg glate engu, af øllu því sem hann gaf mer, helldur skal eg uppvekia þad á efsta dege.

40. Enn þad er vili þess mig sende, at hver sá sem sonen ser, og trúer á hann, hafe eylíft Líf. Og eg mun uppvekia hann á efsta dege.

41. Þá møgludu Judar yfer því at hann sagde: eg em þad braud, hvert ofann kom af himne.

42. Og þeir søgdu: er eigi Jesus þesse sonur Josephs, hvers ver þeckium bæde fødur og módur? hvernneg seger hann þá: eg em komenn af himne?

43. Jesus svarade og sagde til þeirra: møgled eigi sínábyrdis.

44 Eingenn fær til mín komed, nema svo se, at faderenn, sem mig sende, drage hann, og eg mun uppveka hann á efsta dege.

45. Svo er skrifad í spámanna bókum, at þeir munu aller verda af Gude lærder Hver hefst nú heyrer af fødurnum; og lærer þad, sá kemur til mín.

46. Eigi þad, at nockur hafe fødurenn senann, nema sá, sem

10 *

er af Gude, hann hefir sed fødurenn.

47. Sannlega, sannlega sege eg ydur: hver sem á mig trúer, hann hefir eylíft líf.

48. Eg em lífsins braud.

49. Fedur ydrir átu manna í eydemørku, og eru dauder.

50. Þetta er þat braud, sem kemur af himne, svo at hver sem etur af því, hann deyr eigi.

51. Eg em þat lifande braud, sem af himne kom. Hver sem etur af því braude, sá lifer eylífflega, og þat braud, sem eg mun gefa, er mitt holld, hvert eg mun gefa fyrer líf veralldarennar.

52. Judar þráttudu þá sín á mille, svo segande: Hvernenn sær þesse gefit oss sitt hollld at eta?

53. Jesus sagde til þeirra: Sannlega, sannlega sege eg ydur, nema, þer eted holld mannsins sonar, og drecked hans blód, þá hafed þer ey lífed í ydur.

54. Hver hann etur mitt holld, og dreckur mitt blód, sá hefir eylíft líf, og eg mun uppvekia hann á efsta dege.

55. Því mitt holld er sønn fæda, og mitt blód er sannur dryckur.

56. Hver hann etur mitt holld og dreckur mitt blód, sá blífur í mer, og eg í hønum.

57. Líka sem at mig sende sá lifande fader, og eg life saker fødursins; svo og, hver hann etur mig, sá mun og lifa fyrer mínar saker.

58. Þetta er þat braud, sem af himne komid er, eigi svo sem þat ydrir fedur átu manna, og eru dauder: hver hann etur þetta braud, sá lifer at eylífu.

59. Þetta sagde hann í samkunduhúsenu þá hann kennde til Capernaum.

60. Enn marger af hans læresveinum, þá þeir nú þetta heyrdu, søgdu þeir: Hørd er þesse ræda, hver kann at heyra hann?

61. Enn þá Jesus visse med siálfum ser, at hans læresveinar møgludu af þessu, þá sagde hann til þeirra: hneixlar ydur þetta?

62. Hvad mun þá, þegar þer siáed mannsins son uppstíga þángat, hvar hann var fyrr?

63. Andenn er sá sem lífgar, hollded er til einskis neytt; þau ord sem eg tala, þau eru ande og þau eru líf.

64. Enn nockorer eru þeir af ydur, hverer eigi trúa. Þviat Jesus visse af upphafe, hverer eigi voru trúader, og hver sá var, sem hann munde svika.

65 Og hann sagde: fyrer þvi sagde eg ydur, at eingenn sær til mín komid, nema at hønum se þad gefid af mínum fødur.

66. Efter þad gengu marger af hans læresveinum aftur til baka, og gengu eigi lengur þadannaf med hønum.

67. Þá sagde Jesus til þeirra tólf: Viled þer og frágánga?

68. Enn hønum svarade Simon Petrus: Herra! til hvers skulum ver fara? Þú hefir órd eylífs lífs.

69 Og ver trúdum og skildum, at þú ert Christur, sonur Guds lifanda.

70. Jesus svarade þeim: Hefi eg eigi útvaled ydur tólf? Og einn af ydur er Diøfull.

71. Enn hann sagde þetta af Juda Simonis, Ischarioth; Því hann sveik hann sídann, og var einn af þeim tólf.

## 7. Capitule.

1. Efter þat ferdadest Jesus umkring í Galilea, þviat hann villde eigi ferdast umkring í Júdea, af því at Gydingar villdu í hel slá hann

2. Þá var og nálæg hátíd Gydinga, sem var laufskálanna tilbúnadur.

3. Brædur hans sögdu þá til hans: Tak þig upp og gack til Judalands, svo at þíner lærisveinar siáe einnenn þau verk, sem þú gerer.

4. Þvíat sannlega gerer eingenn sá nockud leynelega, sem siálfur hann efterleitar kunnur at verda. Ef þú gerer þat, þá opinbera þú þig fyrer heimenum.

5. Því hans brædur trúdu eigi helldur á hann.

6. Jesus sagde þá til þeirra: Minn tíme er enn eigi komenn, enn ydar tíme er jafnan.

7. Heimurenn fær ydur eigi hatad, enn mig hatar hann, þvíat eg ber vitnisburd af hönum, at hans verk eru vond.

8. Fared þer upp til þessara hátídar, eg vil enn eigi fara upp til þessarar hátídar, þvíat minn tíme er enn eigi uppfylltur.

9. Enn þá hann hafde sagt þeim þetta, vard hann efter í Galilea.

10. Nú sem hans brædur voru uppfarner, þá fór hann og siálfur upp til hátídarennar eigi opinberlega, helldur svo sem á laun.

11. Judar leitudu þá at hönum um hátídena, og sögdu: Hvar er hann?

12. Og mikell kurr var í lydnum um hann. Sumer sögdu: Gódur er hann; enn adrer sögdu: Nei, helldur leider hann lydenn afvega.

13. Enn eingenn talade þó bert um hann, fyrer hrædslu saker vid Gydinga.

14. Enn at hálfnadre hátídenne, steig Jesus upp í musterid, og kende.

15. Judar undrudust, svo segiande: Hvernenn kann þesse ritningarnar, med því hann lærde þær ei?

16. Jesus svarade þeim og sagde: Minn lærdómur er ei minn, helldur hans sem mig sende.

17. Ef sá er nockur, sem gera vill hanns vilia, hann reyner hvert þesse lærdomur se af Gude, eda hvert eg tali af siálfum mer.

18. Hver sem af siálfum ser talar, sá leitar sinnar eigenn dyrdar, enn hver hann leitar þess dyrdar, sem hann sende, hann er sannordur, og ecki ranglæte er med hönum.

19. Gaf Moyses ydur eigi lög, og eingenn ydar helldur lögenn? eda hví sæked þer efter at ífláta mig?

20. Lydurenn svarade og sagde: Dioflenn hefir þú; hver sæker at lífláta þig?

21. Jesus svarade og sagde: Eitt verk gerda eg, og þad undrast þer aller.

22. Moyses gaf ydur því umskurnena, eige at hún være af Moyse komenn, helldur af forfedrunum, og þó umskered þer mannenn á sabbathsdege.

23. Nú ef madurenn medtekur umskurnena á sabbathsdege, svo at eigi briótest Moysis lögmál, enn þer reidest þó vid mig, at eg gerde allann mannenn heilann á sabbatsdege.

24. Þer skulud eige dæma efter ásynd, helldur dæmed rettvann dom.

25 Þá sogdu nockorer af Jerusalem: er þad ecke sá sem þeir sóktu at lífláta?

26. Sjáed! nú talar hann openberlega, og þeir sega ecki til hans: eda vita vorer hofdingar þad víst, at þesse er sannur Christur?

27. Enn ver vitum þó hvadann hann er: enn þá Christur kemur, veit eingenn hvadann hann er.

28. Þá kallade Jesus í Mysterenu kennande, og segande þer þecked mig og vited hvadann eg em, og eg kom eige af sjálfum mer, helldur er hann sannordur, sá mig sende, hvern þer þecked eigi.

29. Enn eg þecke hann, þvíat eg em af honum, og hann hefir útsendt mig.

30. Þá sóktu þeir efter at grípa hann, enn eingenn lagde þó hendur á hann, þvíat eigi var hans tíme enn komenn.

31. Enn margir af fólkenu trúdu á hann og sogdu: þá Christur kemur, mun hann gera nockud fleyre teikn enn þesse gerer?

32. Og þad kom fyrer Phariseana, at fólked krytte þetta um hann. þá sendu prestahofdingar og Pharisei Þenara út, at þeir handtæku hann.

33. Jesus sagde til þeirra: litla stund em eg enn hjá ydur, og þá fer eg til hans, sem mig sende.

34. Þer munud leita mín, og finna mig eigi; og þar sem eg er, þángat fáed þer eigi at koma.

35. Þá sogdu Gydingar sín á mille: hvert vill hann fara, svo ver eigi finnum hann? eda vill hann gánga medal Grickia, sem hingat og þángat sundurdreifder ligg, og kenna Grickium?

36 Hvad fyrer ræda er þat, sem hann sagde? þer leited mín og finned eige, og þar sem eg em, þángat fáet þer eigi at koma.

37. Enn á sídasta dege hátídarennar, sem var veglegastur, geck Jesus upp, og kallade, svo segande: ef nockorn þyrster, kome hann til mín, og drecke.

38. Hver hann trúer á mig, svo sem ritningenn seger, af hans kvide skulu frammfljóta straumar lifanda vatns.

39. Enn þetta sagde hann um þann anda, hvern þeir skylldu medtaka, sem á hann trydu, því heilagur Ande var þar ei enn, þvíat Jesus var enn eigi auglystur.

40. Og marger af lydnum, sem heyrdu þessa hans rædu, sogdu: þesse er sannur spámadur.

41. Adrer sogdu: Hann er Christur: enn sumer sogdu: skal Christur nockud koma af Galilea?

42. Seger eige ritningin, at Christur kome af Davids sæde, og úr stadnum Bethlehem, þar sem David var?

43. Svo var ein tvídrægne med fólkenu um hann.

44. Enn nockorer af þeim villdu hafa gripid hann, enn eingenn lagde þó hendur á hann.

45. Þenararner komu aftur til þeirra yppurstu presta og Phariseanna, og þeir sogdu til þeirra: því hofdud þer hann eigi híngat?

46. Þenararner svorudu: þar

hefir alldrei nockur madur svo talad sem þesse madur.

47. Þá svørudu Pharisei þeim: hvert erud þer og villter?

48. Trúer nockur høfdinganna edur af Phariseis á hann?

49. Helldur þad fólk sem eigi veit af løgmálenu, er bølvad.

50. Nicodemus sagde til þeirra, sá sem kom til hans um nótt, og var einn af þeim:

51. Dæmer vort løgmál nockud mannenn, nema hann se fyrre ransakadur, hvad hann gerer?

52. Þeir svørudu og søgdu til hans: ertþú og svo einn af Galileis? Ransaka þú og skoda, at af Galilea rís eingi spámadur upp.

53. Og hver geck svo heim.

## 8. Capitule.

1. Og Jesus geck þá til Oliufiallsins.

2. Og snemma at morgne kom hann aftur í musterid, og allt fólked kom til hans, og hann sette sig og kende þeim.

3. Enn hiner skriftlærdu og Pharisearar leiddu framm fyrer hann þá konu, sem í hórdóme var gripenn, og settu hana þar í midid;

4. Og søgdu til hans: Meistare, þesse kona er nú gripenn at ferskum gerninge í hórdóme;

5. Enn Moyses bydur oss í løgmálenu, at beria þess háttar menn grióte; eda hvad seger þú til?

6. Enn þetta søgdu þeir, at þeir freistudu hans, at þeir mætti svo hafa ákæru til hans. Enn Jesus laut nidur og ritade med fingrenum á jørdena.

7. Og sem þeir letu ei af at spyria hann, þá rette hann sig upp; og sagde til þeirra: hver ydar sem er án syndar, kaste sá fyrst steine á hana.

8. Þá laut hann nidur aftur, og ritade á jørdena.

9. Þá þeir heyrdu þetta, gengu þeir út, einn efter ødrum, fyrst ølldungarner. Jesus var þá einn efter, og konann þar standande.

10. Enn Jesus rette sig upp, og þá hann sá þar eingann nema konuna, sagde hann til hennar: Kona, hvar eru þeir sem þig áklaga? hefir eingenn fordæmt þig?

11. Enn hún sagde: Herra! eingenn. Jesus sagde: svo fordæme eg þig og eige helldur, gack hedann, og syndga nú ei oftar hedanaf.

12. Jesus talade enn aftur til þeirra, og sagde: eg em liós heimsins: hver hann fylger mer efter, sá mun ei gánga í myrkrunu, helldur skal hann hafa liós lífsins.

13. Þá søgdu Pharisei til hans: þú ber vitne af siálfum þer, þinn vitnisburdur er eigi sannur.

14. Jesus svarade og sagde til þeirra: ef eg ber af siálfum mer vitne, þá er minn vitnisburdur sannur, því eg veit hvadann eg kom, og hvert eg fer. Enn þer vitid eigi hvadan eg kom, eda hvert eg fer.

15. Þer dæmed efter holldenu. Eg dæme eingann.

16. Enn ef eg dæme, þá er minn dómur rettur, þvíat eg em ei einnsamann, helldur eg og faderenn, sem mig sende.

17. Svo er og skrifad í løgum

ydrum, at tveggia manna vitnis-
burdur se sannur.
18. Eg em sá, sem af siálf-
um mer ber vitne, og faderenn
sá mig sende, hañ ber og af mer
vitne.
19. Þá sögdu þeir til hans:
hvar er þinn fader? Jesus svarade:
eigi þeckeð þer mig ne minn födur.
Ef þer þecktud mig, þá þecktud þer
li.a minn födur.
20. Þesse Ord talade Jesus
vid Guds kistuna, þá hann kende
í musterenu, og eingenn tók hann.
Þvi hans stund var enn eigi kom
enn.
21. Þá sagde Jesus aftur til
þeirra: eg fer burt, og þer munud
leita mín, og í syndum ydrum deya:
hvert eg fer, þángat kunned þer ei
at koma.
22. Þá sögdu Gydingar: mun
hann þá vilia drepa siálfann sig,
at hann seger: hvert eg fer, þáng-
at kunned þer ei at koma?
23. Þá sagde hann þeim:
þer erud her nedan at, eg em at
ofann: þer erud af þessum heime,
eg em ei af þessum heime.
24. Þvi sagde eg ydur, at
þer munud deya í ydrum synd-
um, þvi ef þer trúed ei, at eg se
hann, þá munud þer deya í ydrum
syndum.
25. Þá sögdu þeir til hans:
hver ert þú þá? Jesus sagde til
þeirra: fyrst sá, eg sem tala vid
ydur.
26. Margt hefi eg at tala, og
dæma um ydur, enn sá mig sende,
hann er sannordur, og hvad eg
heyrde af honum, þad tala eg fyrer
Heimenum.
27. Enn þeir skildu eigi, at hann
sagde þeim af fadurnum.
28. Þá sagdi Jesus til þeirra:
nær þer upphefed mannsins son,
þá skulud þer skilia, at eg se hann,
og af mer siálfum gere eg ecki,
helldur eins sem mer kende minn
fader, svo tala eg.
29. Og sá sem mig sende, hann
er med mer. Faderenn let mig eigi
einsamann, þvíat eg gere jafnann,
þad honum er þægt.
30. Þá hann talade þetta, trú-
du marger á hann.
31. Þá sagde Jesus til þeirra
Gydinga, sem á hann trúdu:
ef þer blifed vid mina rædu,
þá erud þer miñer sanner lære-
sveinar.
32. Og þá þecked þer sann-
leikann, og sannleikurenn mun
frelsa ydur.
33. Þá svörudu þeir honum:
ver erum Abrahams sæde og
alldrei höfum vér neckors manns
þrælar verid; hvernenn seger þú:
þá þer skulud friálser verda?
34. Jesus svarade þeim, og
sagde: sannlega, sannlega sege eg
ydur: hver helst sem syndena
gerer, sá er syndarennar Þræll.
35. Þrællenn blifur eigi eylíf-
lega í húsinu, enn sonurenn blifur
þar eylíflega.
36. Nú ef sonurenn frelsar
ydur, þá erud þer rettelega frels-
ader.
37. Eg veit vel, at þer erud
Abrahams sæde, enn þer sæked
til at deyda mig, þvíat mín ræda
hefir eigi rúm í ydur.
38. Eg tala þad, sem eg sed
hefe af mínum födur, og hvad
þer sáud hiá ydrum födur, þad
gered þer.
39. Þeir svörudu og sögdu til
hans: Abraham er vor Fader:
þá sagde Jesus þeim: ef þer værud

Abrahams børn, þá gerdud þer
Abrahams verk.
40. Enn nú leited þer efter at
lífláta mig, þann mann þó, sem
sannleikann seger ydur, þann eg
heyrde af Gude: þetta gerde eigi
Abraham.
41. Þer gered ydar fødurs
Verk. Þá svørndu þeir: eigi
erum ver fyrer útann egtaskap
fædder, einn Gud høfum ver fyrer
fødur.
42. Jesus sagde þá til þeirra:
ef Gud være ydar fader, þá elskud-
ud þer mig, því eg em af Gude
komenn, og framgengenn, því
eigi kom eg af siálfum mer, helld-
ur sende hann mig.
43 Fyrer því þecked þer þá
eigi mitt mál, af því þer geted ey
heyrt mín ord.
44. Þer erud af fødurnum
Fianda, og efter gyrndum ydars
fødurs þá viled þer gera: hann
var einn mordinge þegar af
Upphafe, og eigi stód hann í sann-
leikanum, þvíat sannleikurenn er
eigi í hønum; þá hann talar lyge,
talar hann af sínu eigenn, því
hann er einn lygare, og hennar
fader.
45. Enn mer, af því eg sege
sannleikann, þá viled þer eigi
trúa.
46. Hver ydar kann at bevísa
uppá mig nockra synd? nú ef eg
sege sannleikann, því trúed þer
mer þá eigi?
47. Hver hann er af Gude,
sá heyrer Guds Ord, af því
heyred þer eigi, at þer erud eigi
af Gude.
48 Þá svørudu Judar og
søgdu hønum: segum ver eigi rett,
at þú ert Samverskur, og hefir
Diøfulenn?

49. Jesus svarade: eg hefe
eingann Diøful, helldur vegsama
eg fødur minn, og þer vanheidr-
ed mig.
50. Eg leita ei at minne dyrd;
sá er, sem efter henne leitar og
dæmer.
51. Sannlega, sannlega sege eg
ydur: ef nockur er sá, sem helld-
ur mín ord, hann mun ei siá Dand-
ann at eylífu.
52 Þá søgdu Judar vid hann:
nú þeckium ver at þú hefir Diøf-
ulenn. Abraham er daudur og
spámennerner, og þú seger: ef
nockur er sá sem geymer mín
ord, hann mun eigi Daudann
smacka at eylífu.
53. Edur ertþu meire fødur
vorum Abraham, hver framlid-
enn er, og spámennerner eru og
framlidner: hvern gerer þú siálf-
ann þig?
54 Jesus svarade: ef eg veg-
sama mig siálfur, þá er min dyrd
eingenn, þar er minn fader, sá
mig vegsamar, hvern þer seged
ydvarn Gud vera.
55 Og þecked hann þó ei, enn
eg þecke hann, og ef eg segde, at
eg þeckte hann eigi, þá være eg
einn lúgare líkur ydur, helldur
þecke eg hann og helld hans ord.
56. Abraham fader ydar gladd-
est, at hann skyllde siá minn dag,
og hann sá hann, og vard gladur
vid.
57. Þá søgdu Judar til hans:
Þú ert enn eigi fimmtugur, og
sástþu Abraham.
58. Jesus sagde til þeirra: Sann-
lega, sannlega sege eg ydur, ádur
enn Abraham var, var eg.
59. Þá tóku þeir upp steina,
at þeir køstudu á hann, enn Jesus
fordade ser, og geck ut Musterinu.

og geck midt út millum þeirra og komst svo undann.

## 9. Capitule.

1. Og þá Jesus geck framm hiá, sá hann þann einn mann, sem blindur var borenn.

2. Hans lærisveinar spurdu hann þá at og sögdu: Meistare, hver braut? Hann, edur hans foreldrar, at hann fæddest blindur?

3. Jesus svarade: Hverke hann ne hans foreldrar, helldur at Guds verk auglýsist á honum.

4. Mer byriar at verka hans verk, þess mig sende, á medan dagurenn er: Nóttenn kemur nær eingenn fær verkad.

5. Svo lenge sem eg em í verölldinne, þá em eg liós veralldar.

6. Þá hann hafde þetta sagt, spytte hann á jördena, og gerde af hrákanum saur, og smurde saurnum á augu hins blinda,

7. Og saade honum: Far þú til dykesins Siloa (þat þydest sendur) og þvo þer: Þá geck hann og þvode ser, og kom sáande.

8. Þá sögdu nágrannar hans og þeir sem hann höfdu ádur sed, at hann var blindur: Er þat eigi sá, sem sat og beidde? Sumer sögdu: Hann er þat.

9. Enn adrer sögdu: Líkur er hann honum. Hann siálfur sagde: Eg em sá.

10. Þeir sögdu þá vid hann: Hvernenn eru þín augu upplokenn?

11. Hann svarade og sagde: Sá madur sem nefnest Jesus gerde ser saur, og reid á mín augu, og hann sagde mer: Far þú til dykesins Siloa, og þvo þer. Eg geck burt og þvode mer, og feck synena.

12. Þeir sögdu til hans: Hvar er hann? Hann sagde: Eg veit eigi.

13 Þá leiddu þeir hann fyrer Phariseos, sem lenge hafde blindur vered.

14 Enn þá var sabbathsdagur, þá Jesus gerde þann saur, og opnade hans augu.

15. Þá spurdu Pharisei hann enn at, hvernenn hann hefde orbid siáande? Enn hann sagde þeim: Saur lagde hann á mín augu, og eg þvode mer, og nú se eg.

16. Þá sögdu sumer af Phariseis: Eigi er þesse madur af Gude, þvíat hann helldur eigi sabbathsdagenn. Enn adrer sögdu: Hvernenn má syndugur madur gera þvílíkt teikn? Og þar vard sundur þyckia þeirra á mille.

17. Þá sögdu þeir aftur til hins blinda: Hvad seger þú af honum, at hann opnade þín augu? Enn hann sagde: Spámadur er hann.

18. Gydingar trúdu eigi um hann, at hann hefde blindur verid, og være nú skygn ordenn, þángat til þeir kölludu á hans foreldra, sem synena hafde fenged.

19. Og spurdu þá at svo segande: Er hann ydkar sonur, hvern þer seged blindann borenn vera, eda hvernenn ser hann nú?

20. Hans foreldrar svörudu þeim og sögdu: Vid vitum at þesse er ockar sonur, og at hann var blindur borenn.

21. Enn med hverium hætte hann ser nú, þat vitum vid eigi,

eda hver hans augu opnade, þat vitum vid eigi, hann hefir siálfur alldur til, spyred hann at, og láted hann siálfann tala fyrer sig.

22. Þetta søgdu hans fedgin, af því at þau óttudust Gydinga, þvíat Gydingar høfdu þá þegar sambundid med ser, at ef nockur medkende hann fyrer Christum, at sá skyllde útrekast af þeirra samkundum.

23. Fyrer því søgdu hans fedgin: Hann er nógu gamall, spyred hann at.

24. Þá kølludu þeir aftur í ødru sinne á þann mann sem blindur hafde verid, og søgdu hønum: Gef Gude heidurenn, ver vitum at þesse madur er syndugur.

25. Hann svarade og sagde: Er hann syndugur, þat veit eg eigi, eitt veit eg, at eg var blindur, og nú se eg.

26. Þeir søgdu þá til hans: Hvad gerde hann þer, edur hvernenn lauk hann upp þínum augum?

27. Hann svarade þeim; eg sagde ydur nú þat: Hafid þer eigi heyrt þat? Til hvers vilid þer heyra þat aftur: Eda vilid þer verda hans læresveinar?

28. Þá bølvudu þeir hønum, og søgdu: Þú ert hans læresveinn, enn ver erum Moysis læresveinar.

29. Ver vitum at Gud talade vid Moysen, enn ver vitum eigi hvadann þesse er.

30. Sá madur svarade og sagde þeim: Þat er undarlegur hlutur, at þer vited eigi hvadann hann er, og þó lauk hann upp mínum augum?

31. Enn ver vitum at Gud heyrer eigi synduga, helldur þat, ef nockur er Guds dyrkare, og gerer efter hans vilia, þann heyrer hann.

32. Frá veralldar upphafi hefir þat eigi heyrt vered, at nockur hafe upplóked þess manns augum, sem blindur var boreinn.

33. Være þesse eigi af Gude, þá mætte hann ecki gera.

34. Þá svørudu þeir og søgdu til hans: Allur ertþu í synd aleinn, og þú kenner oss. Og þá ráku þeir hann út.

35. Þá Jesus heyrde þat, at þeir høfdu hann útreked, og þá hann fann hann, þá sagde hann til hans: Trúer þú á Guds son?

36. Hann svarade og sagde til hans: Herra! Hver er hann, svo eg trúe á hann?

37. Jesus sagde til hans: Þú sást hann, og hann sem talar vid þig, sá er hann.

38. Hinn svarade: Herra! eg trúe, og hann tilbad hann.

39 Jesus sagde: Til dóms kom eg í þennann heim, at þeir, sem eigi siá, skylldu verda siáande, og at þeir verde blinder, sem siá.

40. Og nockorer af Phariseis heyrdu þetta, sem hiá hønum voru, og søgdu til hans: Hvert erum ver þá blinder?

41. Jesus sagde þeim: Ef þer værud blinder, þá hefdud þer enga synd: nú fyrst þer seged, ver siáum, þá blífur ydar synd.

## 10. Capitule.

1. Sannlega, sannlega sege eg ydur: hver hann gengur eigi inn um dyrnar í saudahúsid, helldur

stigur hann inn annarstadar, sá er þiófur og mordingi.

2. Enn sá sem gengur inn um dyrnar, hann er hyrder saudanna.

3. Fyrer hønum lykur dyravørdurenn upp, og sauderner heyra hans rødd, og hann kallar sína saude med nafne, og leider þá út.

4. Og þá hann hefir sína sau de útlátid, gengur hann framm fyrer þeim, sauderner fylgia og hønum efter, þvíat þeir þeckia hans rødd.

5. Enn ødrum annarlegum fylgia þeir eigi efter, helldur flya þeir frá hønum, þvíat þeir þeckia eigi ókunnugra rødd.

6. Þennann ordskvid talade Jesus til þeirra; enn þeir skildu eigi, hvad þat var, sem hann sagde þeim.

7. Þá sagde Jesus enn aftur til þeirra: Sannlega, sannlega sege eg ydur, eg em dyr saudanna

8. Aller, hvererhellst fyrer mer eru komner, þeir voru þiófar og mordingar, og sauderner hlyddu þeim eigi.

9. Eg em dyrnar, ef nockur gengur inn fyrer mig, sá mun frelsast, hann mun og gánga út og inn, og finna sitt fódur.

10. Þiófurenn kemur eigi til annars, enn at hann stele, drepe og fordiarfe: eg em komenn til þess, at þeir skylldu hafa líf og fulla nægd.

11. Eg em gódur hyrder; gódur hyrder gefur sitt líf út fyrer saudena.

12. Enn leigumadurenn, sá eigi er hyrder, og hvers sauderner eru eigi eigennleger, hann ser úlfenn koma, yfergefur saudena og flyr, enn ú'furenn grypur þá og sundurdreifer saudunum.

13. Enn leigumadurenn flyr, af því at hann er leigumadar, og hyrder eigi um saudena.

14. Eg em gódur hyrder og eg þecke mína saude, og eg þeckest af mínum.

15. Svo sem minn fader þecker mig, svo og þecke eg fodurinn, og mitt líf legg eg út fyrer saudena.

16. Eg hefe og enn adra saude, sem eigi eru af þessu saudahúsi, þá byriar mer og hingat at leeda, og þeir munu heyra mína rødd, og þar mun verda eitt saudahús og einn hyrder.

17. Fyrer því elskar mig minn fader, at eg legg út mitt líf, uppá þat eg take þat og aftur.

18 Eingenn tekur þat af mer, helldur legg eg þat af mer siálfur. Eg hefe valld til þat af at leggia, eg hefe og valld til þat aftur at taka: Þetta bodord feck eg af mínum fødur.

19. Þá vard enn sundurþyckia millum Gydinga fyrer saker þessara orda.

20. Enn marger af þeim søgdu: Diøfulennn hefir hann, og er afsinna; til hvers heyred þer hønum?

21. Adrer søgdu: þesse ord eru eigi óds manns, kær Diøfullenn nockud blinds manns augum upplokid?

22. Og þar gerdest musteris vígsla í Jerusalem, þat var um vetur.

23. Og þá Jesus geck í musterinu í forbyrge Salomonis.

24. Þá umkringdu hann Judar, og søgdu til hans: Hversu leng þá helldur þú vorre sálu uppe? E

þú ert Christus, þá seg oss þat berlega.

25. Jesus svarade þeim: Eg sagdi ydur þat, enn þer trúed eigi: þau verk sem eg gere í míns fødurs nafne, bera vitne af mer.

26. Enn þer trúed eigi, þvíat þer erud eigi míner sauder, svo sem eg sagde ydur.

27. Míner sauder heyra mína rødd, og eg þecke þá, og þeir fylgia mer efter.

28. Og eg gef þeim eylíft líf, og alldrei skulu þeir fyrerfarast, eingenn skal þá og slíta úr minne hende.

29. Fader minn sem gaf mer þá, er øllum hlutum meire, og eingenn kann at slíta þá af míns fødurs hende.

30. Eg og faderenn ver erum eitt.

31. Þá tóku Gydingar enn steina upp, at gryta hann.

32. Jesus svarade þeim: Mørg góð verk synde eg ydur af mínum fødur, fyrir hvers þeirra verka saker grytid þer mig?

33. Gydingar svørudu hønum og søgdu: Fyrer godt verk grytum ver þig eigi, helldur fyrer gudlastan, at þú sem ert madur, gerer þig siálfann at Gude.

34. Jesus svarade þeim: stendur þat eigi skrifad í ydru løgmále: Eg sagde: At þer erud Guder?

35. Nú ef þer kalled þá Gude, til hverra Guds ord eru sked, og ritningenn má eigi riúfast.

36. Enn vid hann sem faderenn helgade, og í heimenn sende, þá seged þer: þú gudlastar, af því eg sagde: Eg em sonur Guds.

37. Ef eg gere eigi míns fødurs verk, þá trúed mer eigi.

38. Nú fyrst eg gere þau, þá trúed verkunum, þó þer viled mer eigi trúa, svo at þer þecked og trúed, at faderenn se í mer, og eg í hønum.

39. Þeir sóktu þá enn til at grípa hann, enn hann geck út frá þeirra høndum.

40. Og fór aftur í þann stad, hinumegenn Jordanar, þar sem Johannes hafde ádur skírt, og var þar,

41. Marger komu til hans, og søgdu: Johannes gerde eigi teikn, enn allt hvad Johannes sagde af þessum, þá er þat satt.

42. Og marger trúdu þar á hann.

## 11. Capitule.

1. Þar lá einn siúkur madur, Lazarus at nafne, af Bethania, í hybylum Mariæ, og hennar systur Marthæ.

2. Enn Maria var sú sem Herrann hafdi smurt med salve og þurkad hans fætur med sínum hárlockum, hverrar bróder var sá Lazarus, sem siúkur lá.

3. Systur hans sendu þá til Jesu, svo segiande: Herra, siá nú, sá þú elskar, hann liggur siúkur.

4. Þá Jesus heyrde þat, sagde hann: þesse sótt er eigi til dauda; helldur til Guds dyrdar, svo at Guds sonur verde þar af prísadur.

5. Enn Jesus elskade Martham og systur hennar, og svo Lazarum.

6. Þá hann hafde þat heyrt, at hann var siúkur, bleif hann

sammt tvo daga í þeim stad sem hann var.

7. Efter þat talar hann til sinna læresveina: gaungum ver aftur í Judeam.

8. Þá søgdu hans læresveinar til hans: Meistare, næst, þá vill du Judar gryta þig, og þó vill þu fara þángat aftur?

9. Jesus svarade: Eru eigi tólf stunder í deige? Hver hann gengur um dageun, sá steyter sig eigi, þvíat hann ser þessa heims ljós.

10. Enn hver hann gengur um nætur, sá steyter sig, því þar er eigi ljós í hønum.

11. Þetta mællte hann. Og efter þat sagde hann, til þeirra; Lazarus vinur vor hann sefur, enn eg fer at vekia hann.

12 Þá søgdu hans læresveinar: Herra! ef hann sefur, þá batnar hønum.

13. Enn Jesus talade um hans dauda; enn þeir ætludu, at hann munde sega þat um líkamlegann svefn.

14. Þá sagde Jesus þeim openberlega: Lazarus er látenn.

15. Og eg fagna fyrer ydrar saker, at eg var eigi þar, svo at þer trúed, enn látum oss nú ferdast til hans.

16. Þá sagde Thomas, sem kalladest Tvibure, til læresveinanna: Gøngum ver med, svo at ver deyum med hønum.

17. Jesus kom þá, og fann at hann hafde þegar fióra daga í grøsenne legad.

18. Enn Bethania lá hart nærre Jerusalem, svo sem fimtán akralengder.

19. Marger Gydingar voru þar komner til Martham og Mariu, at þeir hugguðu þær efter sinn bródur.

20. Sem Martha heyrer at Jesus kemur, rennur hún móte hønum, enn Maria sat heima.

21. Þá sagde Martha vid Jesum: Herra! ef þú hefder verid her, þá være bróder minn eigi látenn.

22. Enn eg veit enn nú, at hvers þú beidest af Gude, þat gefur Gud þer.

23. Jesus sagde til hennar: Bróder þinn skal uppríse.

24. Martha sagde til hans: Eg veit vel at hann mun rísa upp' rísunne á eilsta dege.

25. Jesus sagde til hennar: Eg em upprisann og lífid; hver hann trúer á mig, sá mun lifa, þóat hann deye.

26. Og hver hann lifer og trúer á mig, sá skal alldrei deya. Trúer þú þessu?

27. Hún sagde til hans: Já Herra! eg trúe at þú ert sá Christur, sonur Guds, sem í heimenn er komenn.

28. Þá hún hafde þetta sagt, fór hún og kallade heimuglega á systur sína Mariu, svo seigande: Meistarenn er her og kallar á þig.

29. Þá hún heyrde þat, stód hún skyndelega upp og kom til hans.

30. Þvíat Jesus var enn eigi komenn í þorpid, helldur var hann enn í þeim stad, sem Martha hafde móte hønum komid.

31. Enn þeir Judar, sem í húsinu voru hiá henne, og hana huggudu, þá þeir sáu Mariam, at hún stód svo fliótt upp, og geck út, fylgdu þeir henne efter, og søgdu: Hún fer til grafarennar at gráta þar.

32. Þá María kom nú þángat sem Jesus var, og hún leit hann, fell hún til fóta hans, og sagde hönum: Herra! ef þú hefder her vered, þá være bróder minn eigi látinn.

33. Sem Jesus sá hana gráta, og þá Gydinga líka grátande, sem med henne komu, bisiest hann vid í anda, og ángradest þünglega.

34. Og sagde: Hvar hafid þer lagt hann? Þeir sögdu hönum: Herra! kom og skoda.

35. Þá tárfellde Jesus. Þá sögdu Gydingar.

36. Siá, hversu kærann hann hefir haft hann.

37. Enn adrer af þeim sögdu: Mátte hann, sem opnade blinds manns augu, eigi gera vid því, at þesse hefde eigi dáed?

38. Jesus bisiest þá enn med siálfum ser, og kom til grafarennar. Enn þat var ein grysia, og einn steinn var þar og yferlagdur.

39. Jesus sagde: Taked af steinenn. Þá sagde Martha, syster hins dauda, til hans: Herra! hann lyktar nú illa, þvíat hann hefir leged fióra daga.

40. Jesus sagde til hennar: Sagde eg þer eigi, at ef þú tryder, þá munder þú siá Guds dyrd.

41. Þá tóku þeir steinenn af, þar sem hinn dande lá. Enn Jesus hóf þá sín augu upp, og sagde: Fader, eg þacka þer at þú bænheyrder mig.

42 Enn eg veit þó, at þú heyrer mig jafnann, helldur fyrer fólksins saker, sem her stendur í kring, þá sege eg þer, svo at þat trúe því, at þú sender mig.

43. Þá hann hafde þetta sagt, kallade hann hárre roddu: Lazare, kom þú út hingat.

44. Og sá dande kom út, reirdur med líkböndum at höndum og fótum, og um hans ásiónu var sveipad med sveitadúke. Jesus sagde til þeirra: Leysid hann og látid hann gánga.

45. Marger af Gydingum, sem komid höfdu til Mariam, og sáu hvad Jesus gerde, trúdu á hann.

46. Enn sumer af þeim gengu burt til Pharisearanna, og sögdu þeim, hvad Jesus hafde gert.

47. Þá söfnudu kennemannahöfdingar og Pharisei einu ráde, og sögdu: Hvad skulum ver tilgera? Því þesse madur gerer mörg teikn.

48. Og ef ver sleppum hönum svo, þá trúa aller á hann, og þá koma Romveriár og taka frá oss lönd og lyde.

49. Enn einn af þeim, Caiphas, sá sem þat sama ár var ypparste prestur, sagde til þeirra:

50. Þer vited eigi, og hugleided eigi, at betra er fyrer oss, at einn madur deye fyrer fólkid, enn at allur lydur tapest.

51. Enn þetta sagde hann eigi af siálfum, ser helldur af því. at hann var þess árs ædste prestur, þá spáde hann, at Jesus skyllde deya fyrer fólked.

52 Eigi einasta fyrer þat fólk, helldur þat, at hann safnade í eitt þeim Guds börnum, sem sundur voru dreifd.

53. Og upp frá þeim dege samtóku þeir med ser, hverneun þeir mættu lífláta hann.

54. Jesus geck þá eigi þadann af berlega hiá Gydingum, helldur

fór hann 'burt í eitt bygdarlag, nærre eydemørku, í eina borg, sem kallast Ephraim, og þar dvald. est hann med sínum læresvein' um.

55. Enn þá vorn páskar Gydinga nálæger, og marger úr þeirre sveit gengu upp til Jerusalem fyrer Páskana at hreinsa sig.

56. Þeir spurdu þá efter Jesu, og töludu sín á mille í Musterenu: hvad synest ydur, at hann kemur ei til hátídarennar?

57. Enn høfudprestarner og Pharisei høfdu láted þad bod útgánga, ef nockor visse, hvar hann være, þá skylde sá undervísa þeim, svo at þeir mættu høndla hann.

## 12. Capitule.

1. Sex døgum fyrer páska, kom Jesus, í Bethaniam, þar sem Lazarus hinn frammlidne var, hvern Jesus uppvakde af dauda.

2. Enn þeir binggu høzum þar eina kvølldmáltíd, og Martha þiónade. Lazarus var einn af þeim sem til bordsins sátu med hønum.

3. Þá tók Maria eitt pund salve, af óm eingudu og dyrmætu narduß, og smurde med fætur Jesu, og þurkade svo hans fætur med sínu háre. Húsid fylltest og upp af ilm smyrslanna.

4. Þá sagde einn af hans lærefveinum, Judas Simons sonur Ischarioth, sá sem hann sveik þar efter,

5. Fyrer því er þetta salve ei selldt fyrer þriúhundrud peninga, og gefid fátækum?

6. Þetta sagde hann eigi af því, at hann hyrdte um fá ækа, helldur var hann þiófur, og hafde sepyngana, og bar þad sem gefid var.

7. Þá sagde Jesus: lát hana í fride, þetta geymde hún til míns greftrunardags.

8. Því volada hafed þer jafnann hiá ydur, enn mig hafed þer eigi at jafnade.

9. Enn þá fiølde mikell af Gydingum fornam, at hann vat þar, komu þeir eigi einasta þángat fyrer Jesu saker, helldur at þeir sæu Lazarum, þann sem hann hafde af dauda reist.

10. Enn prestahøfdingar ásettu ser at slá Lazarum í hel.

11. Því at fyrer hans saker gengu marger út af Gydingum þángat, og trúdu á Jesum.

12. Annann dag efter, þá þad mikla fólk heyrde, sem til hátídardagsins var komed, at Jesus kom til Jerusalem,

13. Þá tóku þeir ser kvisle af palmvide, og gengu út móte hønum, og hrópudu: Hosianna, lofadur se sá sem kemur í nafne Drottens, konongur Israels!

14. Enn Jesus feck eina øsnu, og reid þar á, svo sem skrifad er:

15. Ottast eigi þú dótter Ziońs. Siá, þinn konongur kemur rídande á einum øsnu-fola.

16. Enn þetta skildu eigi hans læresveinar í fyrstu, helldur, þá Jesus var anglystur, þá hugleiddu þeir, at þetta var af hønum skrifad, og þeir høfdu hønum þetta gert.

17. Enn þad folk hrósade hans gerninge, sem hiá hønum var, þá hann kallade Lazarum úr grøfenne, og af dauda uppvakte.

18. Af því geck og folked út móte hønum, at þad heyrde, at hann hafde gert soddann teikn.

19. Enn Pharisei søgdu sín á mille: Þer siáed nú, at þer orked engu. Siá! Allur heimur hleypur efter hønum.

20. Þar vorn og nockorer Grisker, med þeim, sem upp høfdu farid at tilbidia um hátídena.

21. Þeir gengu til Philippum, sá sem var úr Bethsaida af Galilea, bádu hann og søgdu: Herra! ver villdum sá at siá Jesum.

22. Philippus kom og sagde þad Andreas, enn Philippus og Andreas søgdu þad Jesu.

23. Enn Jesus ansade þeim og sagde: Sá tíme er nú komenn at Mannsins sonur auglysast.

24. Sannlega, sannlega sege eg ydur: nema þad, at hveitekorned falle í jørdena, og deye, þá blífur þat einsamant, enn ef þad deyr, þá færer þad mikenn ávørt.

25. Hver hann elskar sitt líf, hann glatar því, enn hver hann hatar sitt líf í þessum heime, sá vardveiter þad til eylífs lífs.

26. Ef nockur vill mer þióna, þá fylge hann mer efter, og hvar eg em, þar skal og minn þenare vera. Ef nockur þiónar mer, þá mun minn fader hann heidra.

27. Mín sál er nú hrigg, og hvad skal eg sega? Fader! hiálpa mer af þessum tíma, enn fyrer því kom eg þó í þennann tíma.

28. Fader! birtu nafn þitt. Þá kom rødd af Himne: Eg hefe þad uppbirt, og eg skal þad enn aftur uppbirta.

29. Þá sagde fólkid, sem hiá stód og áheyrde: Þar urdu reydarþrumur. Adrer søgdu: at engell talade vid hann.

30. Jesus svarade og sagde: Eigi kom þesse rødd fyrer mínar saker, helldur fyrer ydrar saker.

31. Nú bvriast dómur yfer þessum heime. Nú mun og þessa heims høfdinge útrekast.

32. Og þegar eg verd upphafenn fra jørdu, þá mun eg draga alla til mín.

33. Enn þetta sagde hann, teiknande med hverum dauda hann skyllde deya.

34. Þá svarade fólkid hønum: ver høfum heyrt í løgmálenn, at Christur blífe at eylífu. Hvernenn seger þú þá; Mannsins syne byriar upp at hefiast? Hver er sá Mannsins sonur?

35. Þá sagde Jesus til þeirra: Liósid er enn litla stund hiá ydur; gánged því á medan þer hafed liósid, svo at myrkurenn yfersalle ydur eigi. Sá sem gengur í myrkrum, hann veit eigi hvert hann fer.

36. A medann þer hafed liósid, þá trúed á þad, uppá þad þer leud liósins børn. Þetta talade Jesus og geck burt og fordade ser fyrer þeim.

37. Og þó hann gerde slík teikn fyrer þeim, þá trúdu þeir þó eigi á hann.

38. Svo at uppfyllest ordsaga Esaiæ spámanns, þá hann sagde: Herra, hver trúer vorre predikun, og hverum er armleggur Drottins opennberadur.

39. Fyrer því kunnu þeir eigi at trúa, þvíat Esaias seger enn aftur.

40. Hann blindade augu þeirra, og forherdte hiørtu þeirra, svo at þeir sæu eigi med augunum,

ne skildu med hiartanu, at þeir umsnúest og eg hiálpe þeim.

41. Þetta sagde Esaias, þá hann leit hans dyrd, og talade um hann.

42. Marger af høfdíngum trúdu þá á hann: enn fyrer saker Phariseara þá medkenndu þeir þad eigi, svo at þeir yrdu eigi forbodader.

43. Þvíat þeir villdu helldur hafa vegsemd hiá mønnum, enn vegsemd hiá Gude.

44. Jesus kallade þá og sagde: hver sem trúer á mig, hann trúer eigi á mig, helldur á þann sem mig sende.

45. Og hver hann ser mig, hann ser þann sem mig sende.

46. Eg em eitt liós í heimenn komenn, svo at hver, sem á mig trúer, se eigi í myrkrunum.

47 Hver sem heyrer mín ord og trúer eigi, þann mun eg eigi dæma, þvíat eg kom eigi til at dæma heimenn, helldur at frelsa heimenn

28. Hver hann fyrerlítur mig, og medtekur eigi mín ord, hann hefir nú þegar þann hann dæmer. Þad ord sem eg talade, þad mun dæma hann á efsta deige.

49. Þvíat eg talade eigi af siálfum mer, helldur faderenn sem mig sende, hann gaf mer eitt bodord, hvad eg skyllde gera og mæla.

50. Og eg veit at hans bodord er þad eylífa líf. Þar fyrer, at eg tala, þad tala eg svo sem faderenn sagde mer.

## 13. Capitule.

1. Fyrer Páskahatídena, þá Jesus visse at hans tíme var komenn, at hann genge úr þessum heime til fødurfins, líka sem hann elskade sína, þá er her voru í heimenum, svo elskade hann þá allt til enda.

2. Og efter kvølldmáltídena, þegar Diøfullenn hafde allareidu sendt í hiarta Judæ Simonis Ischarioth, at hann svike hann,

3. Þá visse Jesus, at faderenn hafde allt gefid ser í hendur, og þad, at hann var af Gude komenn, og til Guds þá fære hann.

4. Þá stód hann upp frá kvølldmáltídenne, lagde af ser klædenn, og tók eitt línklæde, og gyrdte um sig.

5. Efter þad hellte hann vatne í eina munnlaug, og tók til at þvo fætur lærisveinanna og þurkade med því línklæde, med hverju han var gyrdtur.

6. Þá kom hann til Simonar Petrum, og þessi sagde til hans: Herra! skyllder þú þvo mínar fætur?

7. Jesus svarade og sagde hønum: Hvad eg gere, þad veist þú nú eigi, enn seinna skalltu skilia þad.

8. Þá sagde Petur til hans: Alldrei skallt þú mínar fætur þvo. Jesus svarade hønum: Þvoe eg þig eigi, þá hefir þú enga hlutdeilld med mer.

9. Simon Petrus sagde þá til hans: Herra! eigi einasta fæturnar, helldur einnenn fætur og høfud.

10. Jesus sagde til hans: Sá þveginn er, hann þarf eigi at þvo utan fæturnar, því hann er alldungis hreinn, þer erud og hreiner, enn eigi aller.

11. Því hann visse vel af sín-

um svikara; Því sagde hann, Þer erud eigi aller hreiner.

12. Enn þá hann hafde Þveigid ed fætur Þeirra, tók hann sin klæde, settest nidur aptur, og sagde þá enn til Þeirra: vited Þer, hvad eg gerde ydur?

13. Þer kalled mig meistara og Herra! Þer seged Það og rett, Þvíat eg em hann og.

14. Nú ef eg ydar Herra og meistare Þvoer ydar fætur, Þá skulud Þer og kunnbyrdis Þvo hver annars fætur.

15. Þetta gaf eg ydur til eftirdæmis, svo Þer gered líka, sem eg gerde vid ydur.

16. Sannlega, sannlega sege eg ydur, at Þiónninn er eigi meire sinum herra, ne Postulenn, Þeim sem hann útsende.

17. Ef Þer vited Þetta, Þá erud Þer sæler, ef Þer gered Það.

18. Eigi sege eg um ydur alla, eg veit hvera eg hefe útvalid, heldur Það, at uppfyllest ritningenn: sá sem etur mitt brauð, hann tredur mig under fætur.

19. Nú sege eg ydur Það, ádur enn Það sker, svo at Þer trúed, Þá Það er sked, at eg se hann.

20. Sannlega, sannlega sege eg ydur: Hver hann medtekur, ef eg sende nockorn, sá medtekur mig, enn hver hann medtekur mig, hann medtekur Þann sem mig sende.

21. Þá Jesus hafde Þette sagt, hriggdest hann í anda, vottade og sagde: sannlega, sannlega sege eg ydur: einn af ydar mun forráda mig.

22. Þá leit hver lærisveinanna til annars, uggande af hverum hann segdi.

23. Enn Þar var einn af hans lærisveinum, sem sat til bordsins, hiá brióste Jesu, hvern Jesus elskade.

24. Honum bendte Simon Petrus, at hann spyrde hann, hver sá være, sem hann hefde umtalad?

25. Af Því hann lá Þá á brióste Jesu, og sagde til hans: Herra! hver er sá?

26 Jesus svarade: sá er hann hinn same hverium eg dýse Þennann bita og gef, og dýfde í bitanum, og gaf hann Judæ Simonis Ischarioth.

27. Og efter Þann bita fór satan í hann. Þá sagde Jesus til hans: hvad Þú gerer, Þá ger Það skiótt.

28. Enn engenn af Þeim, sem til bordsins sátu, visse til hvers hann sagde honum Það.

29. Sumer ætlodu Það, af Því, at Judas hafde sepyngana, at Jesus munde segia honum: kaup Það ofs gerest Þorf til hátídardagsins; eda at hann gæfe nockud fátækum.

30. Og Þá hann hafde bitann teked, geck hann strax út, og Þá var nótt.

31. Enn Þá hann var útgenginn, sagde Jesus: nú er Manns sins sonur auglýstur, og Gud er auglýstur i honum.

32. Fyrst Gud er auglýstur í honum, Þá mun Gud auglýsa hann í siálfum ser, og snarlega mun hann auglýsa hann.

33 Kæru born! eg em enn litla stund hiá ydur, Þer munud leita mín, og líka sem eg sagde vid Gydinga: hvert eg fer, Þángat funned Þer eigi at koma, og nú seige eg ydur.

34. Eitt nytt bodord, Þá gef

eg ydur, at þer elsked hver ann-
ann: líka sem eg elskade ydur,
svo skulud þer og elskast innbyrd-
is.

35. Og af því munu aller þeckia,
at þer erud míner lærisveinar,
ef þer hafed kærleikann ydar á
mille.

36. Simon Petrus sagde til
hans: Herra, hvert fer þú? Je-
sus svarade hönum: þángat, sem
eg fer, máttþu nú at siune eigi
fylgia mer, enn seinna meir, þá
muntþu fylgia mer.

37. Petur sagde til hans: Her-
ra! því má eg nú eigi at sinne
fylgia þer? eg vil setia mitt líf út
fyrer þig.

38. Jesus svarade hönum: skyld-
er þú setia þitt líf út fyrer mig?
sannlega, sannlega sege eg þer, at
hanenn mun eigi gala, ádur enn
þú hefir afneitad mer þrisvar.

## 14. Capitule.

1. Og hann sagde til sinna læri-
sveina: ydar hiörtu hrædest eigi:
trúed þer á Gud, þá trúed þer og
svo á mig.

2. J míns födurs húsi eru marg-
ar verur. Enn ef eigi svo være,
þá villde eg segia, at eg fære at
tilbúa ydur stad.

3. Og þá eg fer hedann, at til
búa ydur stad, þá vil eg aftur
koma, og taka ydur til mín, svo
þer seud þar sem eg em.

4. Og hvert eg fer, þad vited
þer, og vegenn vited þer einn-
enn.

5. Thomas sagde til hans:
Herra! ver vitum eigi hvert þú
fer; eda hverveg megum ver þá
vegenn vita?

6. Jesus sagde til hans: Eg
em vegurenn, og sannleikurenn,
og lífed. Engenn kemur til föd-
ursins, nema fyrer mig.

7. Ef þer þecked mig, þá þecked
þer og minn födur, og nú hedann
í frá þá þecked þer hann, og hafed
sed hann.

8. Philippus sagde til hans:
Herra! syn oss födurinn, þá næger
oss.

9. Jesus sagde þá til hans: em
eg svo lenge hiá ydur, og þú
þecker mig eigi? Philippe! hver
mig ser, sá ser födurenn, og hvern-
veg seger þú þá: syn oss födur-
enn?

10. Trúer þú eigi, at eg se í
födurnum, og faderenn í mer?
Þau ord eg tala til ydar, þau tala
eg eigi af siálfum mer: faderenn,
sem er í mer, hann gerer þau
verk.

11. Trúed mer, at eg em í
födurnum, og faderenn í mer;
vited þer þad eigi, þá trúed mer
þó fyrer verkanna saker.

12. Sannlega, sannlega sege
eg ydur: hver hann trúer á mig,
sá mun einnenn gera þau verk sem
eg gere, hann mun og gera þessum
meire, þvíat eg fer til födursins.

13. Og hvers þer bided i minu
nafne, þad vil eg gera, svo at
faderenn dyrdkest í synenum.

14. Hvers þer bided í mínu naf-
ne, þad vil eg gera.

15. Ef þer elsked mig, þá halld-
ed mín bodord.

16. Og eg mun bidia födurenn,
at hann vili gefa ydur annann
huggara, svo at hann se hiá ydur
eylíflega.

17. Þann sannleiks Anda, hvern
heimurenn fær eigi medteked, því
hann ser hann eigi, og þecker hann
eigi, enn þer þecked hann, þvíat

hann blífur hiá ydur, og mun vera
í ydur.
18. Eigi vil eg ydur födurlausa
efter láta, eg kem til ydar.
19. Þad er enn nú lítell tíme,
Þá mun heimurenn eigi siá mig
meir, enn Þer skulud siá mig, Þvíat
eg life, og Þer munud lifa einn-
enn.
20. Á Þeim deige munud Þer
skilia, at eg em í mínum födur, og
Þer í mer, og eg í ydur.
21. Hver hann hefir mín bod-
ord, og helldur Þau, hann er sá
sem mig elskar, enn sá mig elskar,
sá elskast af mínum födur, og eg
mun elska hann, og openbera mig
fyrer hönum.
22. Þá sagde Judas, eigi
Ischarioth, til hans: Herra!
hvad er Þad, at Þú villt opennbera
Þig oss, enn eigi heimenum?
23. Jesus svarade og sagde til
hans: hver hann elskar mig, sá
helldur mín ord, og minn fader
mun elska hann, og vid munum
koma til hans, og gera hiá hönum
vistarveru.
24. Enn hver hann elskar mig
eigi, sá helldur eigi mín ord, og
Þad ord sem Þer heyred, er eigi
mitt, helldur födursins, Þess sem
mig sende.
25. Þetta sagde eg ydur, á
medann eg var hiá ydur.
26. Enn huggarenn, hinn hei-
lage Ande, Þann sem minn fader
mun senda í mínu nafne, hann
siálfur mun kenna ydur Þad allt,
og áminna ydur á allt hvad eg
sagde ydur.
27. Frid læt eg ydur efter:
minn frid gef eg ydur. Eigi gef eg
ydur svo sem heimurenn gefur, ydart
hiarta hrædest eigi ne skelfest.
28. Þer heyrdud Þad eg sagde
ydur: eg fer burt; eg kem til ydar
aftur. Ef Þer elskudud mig, Þá
glöddust Þer vid Þad, at eg sagde:
eg fer til födursins, Þvíat fader-
enn er mer meire.
29. Og nú sagde eg ydar Þad,
fyrr enn Þad sker, svo at Þer trúed
Þá Þad er sked.
30. Her efter mun eg eigi tala
margt framar vid ydur, Því höfd-
inge Þessa heims kemur og med
mig hefir hann ecki.
31. Helldur Þad, at heimur-
enn Þecke, at eg elska födurenn,
og eg gere svo sem faderenn hefir
mer boded. Standed upp og lát-
um oss gánga burt.

## 15. Capitule.

1. Eg em sannur vínvidur, og
minn fader er víngardsmadurenn.
2. Hvern Þann kvist á mer, sem
eigi færer ávöxt, mun hann aftaka,
og hvern Þann sem ávöxt færer,
mun hann hreinsa, svo at hann
fære meiri ávöxt.
3. Þer erud nú hreiner fyrer
saker Þess ords, sem eg talade til
ydar.
4. Blífid í mer, og eg í ydur.
Líka sem vínkvisturenn fær eigi fært
ávöxt af siálfum ser, nema hann
se á víntrenu, svo og eigi helldur
Þer, nema Þer blífid í mer.
5. Eg em víntred, enn Þer erud
kvisterner. Hver hann blífur í mer,
og eg í hönum, sá færer mikenn
ávöxt, Þvíat án min fáed Þer
ecki gert.
6. Hver sá sem eigi blífur i mer,
hann mun útkastadur verda sem
annar kvistur, og uppÞorna: og
Þeir sem samannlesa Þá, munu
kasta Þeim á elld at brenna.
7. Nú ef Þer blífed í mer, og

mín ord blífa í ydur, bided þá hvers þer viled, og þad skal ydur ske.

8. Þar med verdur minn fader dyrdkadur, at þer færed mikenn ávoxt, og verded míner læresveinar.

9. Svo sem minn fader elskade mig, líka svo elska eg ydur: blífid í minne ástsemd

10. Ef þer vardveited mín bodord, þá blífed þer í minne ástsemd, líka sem eg vardveitte míns foedurs bodord, og eg blíf í hans ástsemd.

11. Þetta tala eg því til ydar, at minn fagnudur blífe hiá ydur, og ydar fagnudur uppfyllest.

12. Þad er mitt bodord, at hver ydar elske annann, svo sem eg elskade ydur.

13. Eingenn hefir meire ástsemd enn þessa, at hann lætur sitt líf út fyrer sína vine.

14. Þer erud míner viner, ef þer gered hvad eg byd ydur.

15. Og hedann af sege eg eigi lengur, at þer séud þenarar, þvíat Þiónnenn veit eigi hvad hans Herra gerer, enn ydur hefe eg sagt, at þer erud viner, því allt hvad eg heyrde af mínum fodur, þad kunngerde eg ydur.

16. Eigi útvolduð þer mig, helldur hefe eg utvaled ydur, og eg skickade ydur til, at þer gengud burt og færdud ávoxt, og ydar ávoxtur blífe, til þess, ef þer bided fodurenn í mínu nafne, þad gefe hann ydur.

17. Þad byd eg ydur, at þer elsked hver annann.

18. Ef Heimurenn hatar ydur, þá vitid, at hann hefir hatad mig fyrr enn ydur.

19. Ef þer værud af heimenum, þá elskade heimurenn þad hans være: enn med því þer erud eigi af þessum heime, helldur útvalde eg ydur af heimenum, fyrer þad hatar ydur heimurenn.

20. Minnest á mín ord, hver eg sagde ydur: Þenarenn er eigi meire sínum Herra. Ef þeir hafa ofsókt mig, þá munu þeir og offæka ydur; hafa þeir geymt mín ord, þá munu þeir og geyma ydar ord.

21. Enn allt þetta munu þeir gera ydur fyrer míns nafns saker, þvíat þeir þecka eigi hann, þann sem mig sende.

22. Ef eg være eigi komenn, og hefde eigi sagt þeim þad, þá hefdu þeir einga synd, nú hafa þeir eigi, þad þeir afsake sína synd med.

23. Hver sem mig hatar, sá hatar og minn fodur.

24. Ef eg hefde eigi gert þau verk medal þeirra, sem engenn annar hefir gert, þá hefdu þeir enga synd; enn nú hafa þeir séd þau, og hata þo bæde mig og minn fodur.

25. Helldur þad, at þad ord, sem skrifad er í þeirra logmále, uppfylltest: án sakar hofdu þeir mig at hatre.

26. Enn þá sá huggaenn kemur, hvern eg mun senda ydur af fodurnum, sem er sannleiksins ande, hver af fodurnum frammgengur, hann mun bera vitne af mer.

27. Þer munud og bera vitne af mer, þvíat þer hafid frá upphafe hiá mer verid.

## 16. Capitule.

1. Enn þetta hefe eg talad til ydar, svo at þer hneixlest eigi.

2. Þvi þeir munu forboda ydur, og sá tíme kemur, at hver ydar líflætur, hann meinar sig gera Þægt verk Gude þar med.

3. Og þetta munu þeir gera ydur, af því, at þeir þeckia hverke födurenn ne mig.

4. Enn þetta tala eg því til ydar, at nær sú stund kemur, þá skulud þer minnast þar á, at eg sagda ydur þad, enn þetta sagde eg ydur eigi í upphafe, því eg var hiá ydur.

5. Og nú fer eg til hans, sem mig sende, og eingenn ydar spyr mig at: hvert fer þú?

6 Helldur af því eg talade þetta til ydar, þá uppfylltest ydart hiarta af hriggd.

7. Enn eg sege ydur sannleikann: Þat batar ydur, at eg fare hedann, því ef eg fer eigi hedann, þá kemur eigi Huggarenn til ydar; enn ef eg fer hedann, þá mun eg senda hann til ydar.

8. Og þá hann kemur, straffar hann heimenn fyrer synd, og fyrer rettlæte, og fyrer dóm.

9. Fyrer syndena, því þeir trúa eigi á mig.

10. Enn fyrer rettlæted, þvíat eg fer til födursins, og þadan af sjáed þer mig eigi.

11. Enn fyrer dómenn, þvíat þessa heims höfdinge er dæmdur.

12. Enn hefe eg margt at segia ydur, enn þer fáed eigi allt bored at sinne.

13. Enn nær sem sá sannleiksins Ande kemur, þá mun hann leida ydur í allann sannleik, þvíat eigi talar hann af siálfum ser, helldur hvad hann heyrde, þad talar hann, og hvad efterkomande er, þad kunngerer hann ydur.

14. Hann same mun og auglýsa mig, þvíat af mínu mun hann þad taka og kunngera ydur.

15. Allt hvad minn fader hefir, þad er mitt, fyrer því sagde eg, at af mínu mun hann þad taka og kunngera ydur.

16. Um lítenn tíma munud þer eigi siá mig, og enn aftur um lítenn tíma munud þer siá mig, þvíat eg fer til födursins.

17. Þá sögdu nockorer af hans lærisveinum sín á mille: hvad er þad, hvad hann seger oss: um lítenn tíma þá munud þer eigi siá mig, og enn aftur um lítinn tíma þá munud þer siá mig, og eg fer til födursins?

18. Þá sögdu þeir: hvad er þad hann seger, um lítenn tíma? vitum eigi hvad hann seger.

19. Þá fornam Jesus, at þeir villdu spyria hann ar, og sagde til þeirra: þer spyred at því ydar á mille, at eg sagde: um lítenn tíma þá munud þer eigi siá mig, og þá aftur um lítenn tíma, þá munud þer siá mig.

20. Sannlega, sannlega sege eg ydur: þer munud gráta og syrgia, enn heimurenn mun fagna. Þer verded hriggver, enn ydar hriggd skal snúast í fögnud.

21. Konann nær hún fæder, þá hefir hún hriggd, þvíat hennar stund er komenn; enn þá hún hefir barned fædt, minnest hún eigi framar þess harmkvælis, fyrer þess fagnadar saker, at madur er í heimenn borenn.

22. Þer hafid nú einnenn hriggd; enn eg skal siá ydur aptur og ydart hiarta skal fagna, og ydarn fögnud skal eingenn af ydur taka.

23. Og á þeim deige munud þer mig og einskis spyria. Sannlega, sannlega sege eg ydur

Ef þer bideð fødurenn nockurs í mínu nafne, þá mun hann gefa ydur þad.

24. Híngat til hafed þer eigi bedeð í mínu nafne; bideð, þá munuð þer fá, svo at ydar føgnuður fullkomnest.

25. Þetta hefi eg talad fordskvidum til ydar. Sá tíme kemur, at eg tala eigi lengur ordskvide til ydar, helldur kunngere eg ydur berlega af mínum fødur.

26. Á þeim dege munuð þer og bidia í mínu nafne, og eigi sege eg ydur, at eg mune bidia fødurenn fyrer ydur.

27 Þvíat siálfur faderenn elskar ydur: af því elskeð mig, og trúeð, at eg se af Gude útgenginn.

28. Eg em af fødurnum útgenginn, og komenn í þennann heim, eg fyrerlæt og aftur þennann heim, og fer til fødursins.

29. Hans læresveinar segia þá til hans: Siá! nú talar þú berlega, og mæler enga ordskvide.

30. Nú vitum ver, at þú veist alla hlute, og þú þarft eigi at nockur spyri þig: fyrer þad trúum ver, at þú sert af Gude útgengenn.

31. Jesus svarede þeim: Nú trúed þer.

32. Siáed, sú stund kemur, og er nú þegar komenn, at þer munuð tvístrast hver til sín, og skilia mig efter einansamann, enn eg em þó eigi einnsamann, þvíat faderenn er med mer.

33. Þetta talade eg til ydar, svo at þer hefdud frid í mer: í heimenum hafid þer Þrenging, enn verid þó hughrauster, því eg yfervann heimenn.

## 17. Capitule.

1. Þetta talade Jesus og hóf upp sín augu til himins, og sagde: Fader, stundenn er komenn, at þú auglýser son þinn, svo at þinn sonur auglýse og þig.

2. Svo sem þú gafst hønum yfervalld alls holldz, at hann gefi þeim øllum, sem þú gafst hønum, eylíft líf.

3. Enn þat er eylíft líf, at þeir þecke þig alleina einn sannann Gud, og þann þú sender Jesum Christum.

4. Eg auglýste þig á jørdu, og fullkomnade þat verk, sem þú feckst mer at gera.

5. Og nú auglýs mig fader, hiá siálfum þer, med þeirre dýrd, sem eg hafde hiá þer, ádur enn heimurenn var.

6. Eg hefe opinberad nafn þitt fyrer mønnum, þeim sem þú gafst mer af heimenum: þeir voru þíner, og þú gafst mer þá, og þeir geymdu þín ord.

7. Nú vita þeir, at allt hvad þú gafst mer, er af þer.

8. Því þau ord sem þú gafst mer, þá gaf eg þeim, og þeir hafa þau medtekeð, og þeckia sannlega, at eg em af þer útgenginn, og trúa því, at þú sender mig.

9. Eg bid fyrer þeim: eigi bid eg fyrer heimenum, helldur fyrer þeim, hvera þú gafst mer, því þeir eru þíner.

10. Allt hvad mitt er, þat er þitt, og hvad þitt er, þat er mitt, og í þeim em eg auglýstur.

11. Og eigi em eg nú meir í heimenum; enn þeir eru í heimenum, og eg kem til þín. Heil agur fader, geym þá í þínu nafne

hvera þú gafst mer, at þeir seu eitt, sem vid.

12. A medann eg var hiá þeim í heimenum, þá geymde eg þá í þínu nafne, hvera þú gafst mer; þá vardveitte eg, og eingenn af þeim er glatadur, nema þat glötunar barn, svo at ritningenn uppfyllest.

13. Enn eg kem nú til þín, og þetta tala eg í heimenum, svo at þeir hafe minn fullann fögnud med siálfum ser.

14. Eg gaf þeim þítt ord, og heimurenn hatar þá, þvíat þeir eru eigi af heimenum, líka sem þat, at eg em eigi af heimen um.

15. Eg bid eigi, at þú taker þá af heimenum, helldur at þú geymer þá frá illu.

16. Þeir eru eigi af heimenum, svo sem eg em eigi af heimen um.

17. Helga þú þá í þínum sann leik, þítt ord eru sannleikur.

18. Líka sem þú sender mig í heimenn, svo sende eg þá í heim enn.

19. Fyrer þá helga eg siálfann mig, svo at þeir seu og helgader í sannleikanum.

20. Eg bid eigi einasta fyrer þeim, helldur og jafnvel fyrer þeim, sem trúa munu á mig, fyrer þeirra ord.

21. Svo at þeir seu aller eitt, svo sem þú fader ert í mer, og eg í þer, at þeir seu og eitt í ockur, svo at heimurenn trúe, at þú sender mig.

22. Og þá dyrd, sem þú gafst mer, þá gaf eg þeim, at þeir seu og eitt, svo sem vid erum eitt.

23. Eg í þeim, og þú í mer, svo at þeir seu fullkomner í einu, og þat, at heimurenn kunne at þeckia, at þú sender mig, og at þú elsker þá, svo sem þú elskar mig.

24. Fader! hvera þú gafst mer, vil eg, at hvar sem eg em, þá seu þeir med mer, svo þeir siáe mína dyrd, þá þú gafst mer, þvíat þú elskader mig, fyrr enn heimurenn var grundvalladur.

25. Rettvíse fader! heimurenn þecker þig eigi, enn eg þecke þig, og þesser þeckia, at þú send er mig.

26. Og þitt nafn gerde eg þeim kunnugt, og eg vil gera þeim þat kunnugt, svo at þín ástsemd, med hverre þú elskader mig, se í þeim, og eg i þeim

## 18. Capitule.

1. Þá Jesus nú hafde þetta talad, geck hann út med sína læresveina, yferum lækenn Kedron. Þar var einn jurtagardur. Og Jesus geck þar inn med sína læresveina.

2. Enn Judas, sá sem hann sveik, visse og þennann stad, þvíat oft safnadest Jesus þángat med sína læresveina.

3. Þá Judas hafde nú til sín teked flock manna, og einnenn af kennemannahöfdinganna, og Phariseanna þenurum, kom hann þángat med blysum, lömpum, og vopnum.

4. Nú sem Jesus visse allt hvad yfer hann átte at koma, þá geck hann út, og sagde til þeirra: At hverum leited þer?

5. Þeir svörudu hönum: At Jesu af Nazareth. Þá sagde Jesus til þeirra: Eg em hann.

Enn Judas, sá sem hann forred, stód þar einnenn hiá þeim.

6. Og þá Jesus sagde til þeirra: Eg em hann, hørfudu þeir á bak aftur, og duttu til jardar.

7. Hann spurde þá enn aftur at: At hverum leited þer? Enn þeir søgdu: At Jesus af Nazareth.

8. Jesus svarade: Eg sagde ydur þat: Eg em hann. Og ef þer leited at mer, þá láted þessa burtu gánga,

9. Svo at uppfylldest þat ord, sem hann sagde: Engum glatade eg af þeim, sem þú gafst mer.

10. Þá hafde Simon Petur eitt sverd, og dró þat út, og sló til eins kennemannahøfdingans þenara, og hió af hønum hans hægra eyra, enn þenarenn het Malchus.

11. Þá sagde Jesus til Peturs: Stikþú þinn sverde í slídrer: skal eg þá eigi drecka þann kaleik, sem mer gaf minn fader?

12. Enn flockurenn og hinn ypparste høfudsmadur, og Gydinga þenarar handludu Jesum, og bundu hann.

13. Og leiddu hann fyrst burt til Hannas (sá var mágur Caiphæ) sá sem þá var þess árs ædste prestur.

14. Enn Caiphas var sá sem Gydingum gaf þat rád, at betur være, at einn madur være líflátenn fyrer lydenn.

15. Simon Petrus fylgde Jesu epter, og einn annar lærisveinn; sá same lærisveinn var kunnugur kennemannahøfdinganum, og geck inn med Jesu í kennemannahøfdinga salinn.

16. Enn Petur stód fyrer dyrum úte. Þá geck út hinn annar lærisveinn, sem kennemannahøfdinganum var kunnugur, og talade vid hana sem dyrnar geymde, og leidde Petrum inn.

17. Þá sagde ambáttenn, sem dyrnar geymde, til Peturs: Ert þu eigi einn af þess manns lærisveinum? Hann sagde: eigi em eg.

18. Enn þenarar og undermenn stódu, og høfdu gert einn kolaelld, og vermdu sig, þvíat kulde var. Petur stód þar hiá þeim, og vermde sig.

19. Enn kennemannahøfdingenn spurde Jesum þá at, um hans lærisveina, og um hans kenning.

20. Jesus svarade hønum: Eg hefe opinnberlega talad fyrer heimenum; eg kende og jafnann í samkunduhúsum og í musterenu, þar sem aller Gydingar komu samann, og á laun hefe eg eigi talad.

21. Því spyr þú mig þar at? Spyr þú þá þar at, sem heyrt hafa, hvad eg hefe talad til þeirra: Siá, þeir vita, hvad eg hefe sagt.

22. Enn þá hann sagde þetta, þá gaf einn þeirra þenara, sem þar hiástód, Jesu pústur, og sagde: Skalt þú svo svara kennemannahøfdinganum?

23. Jesus svarade: Ef eg talade illa, þá vitna þú þat vondt vera; enn ef eg talade rett, því slær þú mig þá?

24. Og Hannas sende hann bundenn til Caipham, kennemannahøfdinga.

25. Og þá Simon Petrus stód þar og vermde sig, þá tøludu þeir til hans: Ert þu eigi einn af

hans lærefveinum? Hann neitade, og fagde: Eigi em eg.
26. Pá fagde einn af kennemannahøfdingans þenúrum, frændi þeß, fem Petur hió af eyrad: Sá eg þig eigi í grasgardenum hiá hønum?
27. Pá neitade Petur þvi enn aftur, og strax gól hanenn.
28. Pá leiddu þeir Jesum frá Caiphas í þínghúsid, enn þat var árla. Og þeir gengu eigi sjálfer inn í þínghúsid, at þeir saurgudust eigi, heldur svo at þeir mættu neyta Páskanna.
29. Pilatus geck þá út til þeirra og fagde: Hvera ákæru færed þer gegn þessum manne.
30. Þeir svorudu og føgdu til hans: Ef þesse være eigi illrædismadur, þá hefdum ver eigi fenged þer hann í hendur.
31. Pá fagde Pilatus til þeirra: Taked þer hann þá, og dæmed efter ydrum løgum. Gydingar føgdu þá til hans: Eigi þorum ver at lífláta nockurn.
32. Svo at þat ord Jesu uppfylldest, fem hann fagde, teiknande til, med hverum dauda hann ætte at deya.
33. Pilatus geck þá inn aftur í þínghúsid, kallade Jesum, og fagde til hans: Ertþú Gydinga konungur?
34. Jesus svarade: Talar þú þat af sjálfum þer, eda hafa adrer fagt þer þat um mig?
35. Pá svarade Pilatus: Em eg nockud Gydingur? Þín þiód og kennemanna høfdingar feldu þig mer; hvad hefir þú gert?
36. Jesus svarade: Mitt ríke er eigi af þessum heime: ef mitt ríke være af þessum heime, þá mundu míner þenarar strída þar fyrer, svo at eg felldest eigi Gydingum, enn nú er mitt ríke eige þadan.
37. Pá fagde Pilatus til hans: Þá ertþú þó konungur? Jesus svarade: Þú seger þat, eg em og konungur, til þeß em eg fæddur, og í heimenn komenn, at eg bere vitne fannleikanum. Og hver hann er af fannleikanum, fá heyrer mína rødd.
38. Pilatus fagde til hans: Hvad er fannleikur? Og þá hann hafde þetta fagt, geck hann aftur til Gydinga, og fagde til þeirra: Eg finn enga føk med hønum.
39. Enn þat er ydar fidvenia, at eg gefe ydur einn lausann á páskum; viled þer, at eg gefe ydur nú lausann Gydinga konungenn?
40. Pá kølludu aller aftur móte fegande: Eigi þennann, helldur Barrabam; en Barrabas var einn manndrápare.

## 19. Capitule.

1. Pá tók Pilatus Jesum, og húdstrykte hann.
2. Og ftrídsmennerner flettudu eina kórónu af þyrnum, og fettu hana á hans høfud, og lógdu yfer hann purpuraklæde.
3. Og føgdu: Heill fert þú kære konungur Gydinga; og gáfu hønum pústra.
4. Pá geck Pilatus út aftur og fagde til þeirra: Siáed, eg leide hann nú nú híngat til ydar, svo at þer vited, at eg finn enga føk med hønum.
5. Svo geck Jesus út, berande þyrne kórónu og purpuraklæded; og hann fagde til þeirra: Siáed, hvilijt mannefkia!

6. Þá kennemannahøfdingarner og þenararner sáu hann, kølludu þeir og søgdu: Krossfest'ú, krossfestþú. Pilatus sagde til þeirra: Taked þer hann og krossfested, þvíat eg finn enga søk med hønum.

7. Þá svørudu hønum Gydingar: Ver høfum løg, og efter þeim løgum skal hann deya, þvíat hann gerde sig siálfann at Guds Syne.

8. Þá Pilatus heyrde þat ord, óttadest hann enn meir.

9. Og geck ínn aftur í þinghúsid, og sagde til Jesu: Hvad ann ertþú? Enn Jesus gaf þeim eigi svar.

10. Þá sagde Pilatus til hans: Talar þú eigi vid mig? Veistþú eigi at eg hefe valld til at gefa at krossfesta þig, og eg hefe valld til at gefa þig lausann?

11. Jesus svarade: Eigi hefder þú nockud valld yfer mer, nema þer være þat gefid her ofann frá, fyrer því hefir sá meire synd, sem mig sellde þer.

12. Og efter þat leitade Pilatus vid, hvernueg hann gæte láted hann lausann. Enn Gydingar hrópudu og søgdu: Ef þú lætur þennann lausann, þá ertþú eigi keisaranns vinnr, þvíat hver sem sig gerer at konunge, hann er á móte keisaranum.

13. Þá Pilatus heyrde þat ord, leidde hann Jesum út, og sette sig á dómstólenn í þeim stad, sem kallast hinn steinlagde, enn á Ebresku, Gabbatha.

14. Enn þat var atfángadagur páska, nærre siøttu stundu. Þá seger hann og til Gydinga: Siáed, þat er ydar konungur.

15. Enn þeir kølludu, burt, burt med hann, krossfestþú hann. Pilatus sagde til þeirra: Skal eg krossfesta ydarn konung? Kennemannahøfdingarner svørudu: Engan konung høfum ver nema keisarann.

16. Þá framfellde hann þeim hann, at hann krossfestest. Og þá tóku þeir Jesum og leiddu hann burt.

17. Og hann bar sinn kross, og geck út í þann stad, sem kalladest høfudskeliastadur, enn á Ebresku Golgatha.

18. Þar krossfestu þeir hann, og tvo adra med hønum, á bádar sídur, enn Jesum í mided.

19. Pilatus skrifade þá eina yferskrift, og sette hana upp yfer krossenn, og þar var skrifad: Jesus af Nazareth, konungur Gydinga.

20. Þessa yferskrift lásu marger af Gydingum, þvíat sá stadur var nærre borgenne, þar Jesus var krossfestur; enn þat var skrifad á Ebresku, Grisku og Latinsku túngumále.

21. Þá søgdu þeir ædstu prestar Gydinganna vid Pilatum: Skrifa þú eigi; konungur Gydinga: helldur at hann hafe sagt: Eg em konungur Gydinga.

22 Pilatus svarade: Hvad eg skrifade, þat hefi eg skrifad.

23. Þá stríðsmennerner høfdu krossfest Jesum, tóku þeir hans klædnad, og gerdu á fiogra hluta skifte, ser hverum stríðsmanne einn hlut, og þar med kyrtelenn; enn kyrteleun var eigi saumadur, helldur frá ofanverdu allur príónadur.

24. Þá toludu, þeir sín á mille: Skiftum ver hønum eigi í sundur, hlutumst helldur um,

hvers hann skal verda, svo at ritningenn uppfylldest, sem seger: Þeir skiftu med ser klædum mínum, og á minn kyrtel þá løgdu þeir hlutkeste; og þetta gerdu stríds-mennerner.

25. Enn þar stódu, vid krossenn Jesu, móder hans, og módursyster hans, Maria húsfrú Cleophæ, og Maria Magdalena.

26. Þá Jesus sá nú sína móder, og þann læresvein þar nærstandande, sem hann elskade, seger hann til sinnar módur: Kona, siá þú, þad er þinn sonur.

27. Efter þad segir hann til læresveinsins: siá, þad er þín móder. Og upp frá þeirre stundu tók læresveinnenn hana at ser.

28. Efter þad, þá Jesus visse, at allt var nú fullkomnad, og at skriftenn yrde upfyllt, þá seger hann: Mig þyrster.

29. Þar stód eitt ker fullt af edike. Enn þeir fylltu einn njardarvøtt med edike, og løgdu hann um ysop, og helldu því fyrer munn hønum.

30. Enn þá Jesus hafde edikid til sín tekid, sagde hann: Þad er fullkomnad. og at hneigdu høfde, þá uppgaf hann sinn anda.

31. Enn Gydingar, med því þad var atfangadagur, svo at líkamarner væru eigi á krossenum um sabbathsdagenn, því at sá same sabbathsdagur var mikell, þá bádu þeir Pilatum at þeirra bein brytust, og nidur tækust.

32. Þá komu strídsmennerner, og brutu sundur bein hins fyrsta, og svo hins annars, sem med hønum voru krossfester.

33. Enn þá þeir komu til Jesum, og sáu, at hann var allareidu dáenn, þá brutu þeir eigi hans bein.

34. Helldur opnade einn af strídsmonnunum hans sídu med spióte, og strax þá rann þar út blód og vatn.

35. Og sásem þad hefir sed, ber þar vitne um, og hans vitnisburdur er sannur, og hann sá same veit þad, at hann seger satt, svo at þer og svo trúed.

36. Því at þetta er skeed, svo at ritningenn uppfylldest: eige skulud þer brióta nockud hans bein.

37. Og enn aftur seger onnur ritning: þer munut siá þann, í hvern þeir stungu.

38. Þar etter bad Joseph af Arimathæa, hver var læresveinn Jesu, þó heimuglegur, fyrer ótta saker vid Gydinga, Pilatum, at hann mætte taka nidur líkaman Jesu. Og Pilatus leyfde þad. Þá kom hann og tók nidur líkamann Jesu.

39. Þar kom og Nicodemus, sá sem fyrre kom um nótt til Jesu, færande samblandada myrru vid aloe, nær hundrad punda.

40. Þá tóku þeir líkamann Jesu og sveipudu í líne med dyrmætu salve, svo sem Gydinga sidur er, til at greftra.

41. Enn þar í þeim stad, sem hann var krossfestur, var grasgardur. Og í grasgardenum var ny grøf, í hvera eingenn hafde enn verid lagdur.

42. Þángat løgdu þeir Jesum, fyrer saker atfangadags Gydinga, því at sú grøf var nærre.

## 20. Capitule.

1. A þeim fyrsta dege vikunnar, kemur Maria Magdalena snemma,

Þá enn nú var myrkt, til grafarennar, og ser at steinnenn var burt af grøfenne.

2. Þá hleypur hún, og kemur til Simonar Petrus, og til hins annars læresveins, þann Jesus elskade, og sagde til þeirra: Þeir hafa teked burt Herrann úr grøfinne, og ver vitum eigi, hvar þeir hafa lagt hann.

3. Þá geck Petur út, og hinn annar læresveinn, og komu til grafarennar.

4. Enn þeir tveir hlupu samt, því hinn annar læresveinn hlióp vakrara framm enn Petur, og kom fyrst til grafarennar.

5. Og þá hann gægdist þar inn, sá hann línklædenn løgd þar, enn hann geck eigi inn.

6. Þá kemur Simon Petrus efter hønum, stígur í grøfena, og ser at línløkenn eru løgd þar,

7. Og þann sveitadúk, sem var um Jesu høfud, eigi lagdann med línklædunum, helldur serdeilis samanuvundenn í einum stad.

8 Þá ste og hinn annar læresveinn inn, sá sem fyrre kom til grafarennar, sá þad, og trúde því.

9. Því þeir kunnu þá eige enn ritninguna, at hønum byriade upp at rísa af dauda.

10. Þá gengu læresveinarner aftur til samans.

11. Maria stód vid grøfena, og gret þar úte fyrer, og þá hún gret, þá gægdest hún í grøfena.

12. Og sá tvo Engla hvítklædda, sitiande þar, einn til høida, enn annann til fóta, þar sem þeir høfdu lagt líkamann Jesu.

13. Og þeir søgdu til hennar: kona, því grætur þú? Hún sagde þeim: Þeir hafa teked burt Herrann minn, og eg veit eigi, hvar þeir hafa lagt hann.

14. Þá hún hafde þetta sagt, snerest hún vid, og leit Jesum standa þar, og veit þó eigi, at þad er Jesus.

15. Þá sagde Jesus til hennar: kona, hvad grætur þú? at hverium leitar þú? enn hún ætlade jurtagardsmannenn vera, og sagde til hans: Herra, ef þú barst hann burt, þa seg þú mer, hvar lagder þú hann? so vil eg sækia hann.

16. Jesus sagde til hennar: Maria! hún snerest vid, og sagde til hans: Rabbuni, þad kallast meistare.

17. Jesus sagde til hennar: snertþú mig eigi, þvíat eg em enn eige uppstígenn til míns fødurs. Far til brædra minna, og seg þeim: Eg fer upp til míns fødurs, og til ydars fødurs, til míns Guds og ydars Guds.

18 Maria Magdalena kom og kunngerde læresveinunum: Eg hefe sed Herrann, og þetta sagde hann mer.

19. Enn þann sama dag, sem fyrstur var í vikunne, á kvøllde, þá læresveinarner voru samann komner og dyrnar voru aftur luctar, fyrer hrædsln saker vid Gydinga, kom Jesus og geck midt inn, og sagde til þeirra: Fridur se med ydur.

20. Og þá hann sagde þetta, synde hann þeim hendurnar og sína sídu. Þá urdu læresveinarner glader, at þeir sáu drottenn.

21. Þá sagde Jesus enn aptur til þeirra: Fridur se med ydur,

ka sem faderenn sende mig, svo sende eg ydur.

22. Og þá hann sagde þetta, bles hann á þá, og sagde til þeirra: medtaked þer heilagann anda

23. Hverium þer fyrergefed synderuar, þá eru þær þeim fyrergefnar; og hverum þer þær aftur hallded, þá eru þær þeim aftur halldnar.

24. Enn Thomas, einn af þeim tólf, sa sem kalladest tvibure var eige med þeim, þá Jesus kom.

25 Þá søgdu adrer læresveinarner til hans: ver høfum sed Herrann. Enn hann sagde til þeirra: nema eg siáe naglafórenn í hans høndum, og eg láte minn fingur í naglafóreun, og eg legge mína høud í hans sídu, vil eg eige trúa.

26. Og átta døgum efter þad, þá voru hans læresveinar þar aptur enn inne, og Thomas med þeim, þá kom Jesus at lucktum dyrum, stód í midid og sagde: Fridur se med ydur.

27. Því næst seger hann til Thomaus: reiþú þinn fingur hingat, og skoda mínar hendur: rett út þína hønd og legg í mína sídu, og vert eigi vantrúadur, helldur trúadur.

28. Thomas svarade og sagde til hans: drotteun minn og Gud minn!

29. Jesus sagde til hans: því at þú sást mig, Thoma, þá trúder þú. Sæler eru þeir sem eigi sia, og trúa þó.

30. Og mørg onnur teikn þá gerde Jesus fyrer sínum læresveinum, hver eige eru skrifud í þessare bók.

31. Enn þesse eru því skrifut, at þer trúed, at Jesus si Christur Guds sonur, og at þer skulud hafa líf(ed) fyrer trúna í hans nafne.

## 21. Capitule.

1. Efter þad opinberade sig Jesus enn aptur vid Sióeun Tiberias, enn hann opinberade sig svo.

2. Þar voru tilsamans Simon Petrus, og Thómas, sá sem kalladest Tvibure, og Nathanael, sá sem var af Cana Galileæ, og syner Zebedei, og adrer tveir af hans læresveinum.

3 Simon Petrus sagde til þeirra: eg vil farn at fiska. Þeir søgdu hønum: þá vilum ver og fara med þer. Þeir gengu þá út, og stign strax á skip, og á þeirre nóttu fengu þeir ecke.

4. Enn at morgne komnum, þá stód Jesus í fiørunne. Enn læresveinarner vissu eigi, at þad var Jesus.

5. Jesus sagde til þeirra: Børn, hafed þer eigi til matar? Þeir svørudu hønum, nei.

6. Enn hann sagde til þeirra, kasted út netenu til hægre handar vid skkipid, og þá munu þer nockud finna. Þá køstudu þeir út, og gátu eigi dreged fyrer fiølda saker fiskanna.

7. Þá sagde sá læresveinn til Petrus, sem Jesus elskade: Herran er þad. Enn þá Simon Petrus heyrde þad, at Herrann være þad, vafde hann um sig skyrtunne, því at hann var nakeun, og varpade ser út á sióeun.

8. Enn adrer læresveinar komu á skipenu, því at þeir voru eigi

lángt frá lande, helldur nær tvö hundrud álna, og drógu netid med fiskunum.

9. Og þá þeir stigu á land, sáu þeir Elldsglædur, og fisk yferlagdann, og brand.

10. Jesus seger til þeirra: færed híngat af þeim fiskum hveraþer fengud nú.

11. Simon Petrus ste inn, og dróg netid á land, fullt af stórum fiskum, hundrad þremur og fimmtíu, og þó þeir væru svo marger, þá rifnade netid þó eige.

12. Jesus seger til þeirra: komed þer og snæded. Enn eingenn læresveinanna þorde at spyria hann at, hver ertþú? þvíat þeir vissu, at þad var Herrann.

13. Þá kom Jesus og tók brauded, gaf þeim þad, og líka einnenn fiskenn.

14. Þetta er nú hid þrida sinn, at Jesus opinnberade sig sinum læresveinum, efter þad hann var uppristnn af dauda.

15. Þá þeir höfdu nú snædt, seger Jesus til Simonar Peturs: Simon Jona, elskar þú mig, meir enn þesser? hann sagde hönum: já Herra! þú veitst, at eg elska þig. Hann sagde þá til hans: fæd þú lömb mín.

16. Enn seger hann í annat sinn aftur til hans: Simon Jona, elskar þú mig? hann seger hönum: já Herra! þú veitst eg elska þig: hann seger til hans: fæd þú saude mína.

17. Hann seger enn aftur í þrida sinn til hans: Simon Jona, elskar þú mig? þá hriggdest Petur vid, því hann sagde, í þrida sinn til hans: elskar þú mig? og sagde til hans: Herra! þú veitst alla hlute, þú veitst, at eg elska þig. Jesus seger til hans: al þú saude mína.

18. Sannlega, sannlega seg eg þer, þá þú varst úngur, gyrder þú sjálfur þig, og geckst hvert þú villder, enn þá þú elldest, muntu þínar hendur útbreida, og annar mun þá gyrda þig, og þángat leida, sem þú villt eige.

19. Enn þetta sagde hann, teiknande med hverum dauda hann skyllde Gud dyrdka.

20. Og þá hann hafde þetta sagt, seger hann til hans; fylg þú mer efter.

21. Þá snere Petur ser vid, og leit þann læresvein efterfylgande sem Jesus elskade, sá sem og um kvølldmáltídena hafde á hans brióste leged, og sagt: Herra: hver er sá, sem þig mun forráda?

22. Þá Petur leit þennann, seger hann til Jesu: Herra! hvad skal þa þesse?

23. Jesus seger til hans: ef eg vil, at hann blífe til þess eg kem, hvad kemur þad vid þig? fylg þú mer efter.

24. Þá geck sú ordræda út mille brædranna: þesse læresveinn deyr eige. Og Jesus sagde eige til hans: hann deyr eige, helldur: ef eg vil, at hann blife til þess eg kem, hvad kemur þad vid þig?

25. Þesse er sá læresveinn, hver um þessa hlute ber vitne, og þetta skrifade; og ver vitum, at hans vitnisburdur er sannur.

26. Þar eru og marger adrer hluter, sem Jesus gerde, hverer, ef þeir skylldu aller skrifast eitt efter annad, þá helld eg, at heimurenn munde eige yfergrípa þær bækur, sem skrifast mættu.

Ender á S. Johannis Evangelio.

# Annar Partur.

# S. Lucæ Gudspialla um Postulanna Gerninga.

## 1. Capitule.

1. Þann fyrra bókmála gerda eg at sönnu, um allt þat, ó kære Theophile! sem Jesus hóf upp, bæde at gera og kenna.

2. Allt til þess dags, sem hann vard uppnumenn, efter þat hann hafde postulunum bifaling gefed (hvera hann hafde útvalid) fyrer heilagann anda.

3. Hverum hann rede og siálfann sig lifande efter pýsl sína, í marghättudum bevísingum, og let þá siá sig mille þeirra um fiörutíu daga talande fyrer þeim af Guds ríke.

4. Og sem hann hafde þeim samannsafnad, baud hann þeim, at þeir viku eigi út af Jerusalem, helldur at þeir skylldu efterbída fyrerheite födursins, sem þer (sagde hann) hafed af mer heyrt.

5. Þvíat Johannes skírde med vatne, enn þer skulud med heilögum anda skírder verda, eigi lángt efter þessa daga.

6. Enn þeir sem þar voru tilsamans komner, spurdu hann at og sögdu: Herra! villtu nú á þessum tíma uppretta aftur Israels ríke?

7. Enn hann sagde til þeirra: Ydur ber eigi at vita tíma eda stunder, hverar faderenn sette í siálfs síns vallde.

8. Helldur munud þer ödlast kraft heilags anda, þeis sem yfer ydur mun koma, og þer skulud míner vottar vera til Jerusalem, og í allre Judea og Samaria, og allt til jardarennar enda

9. Og þá hann sagde þetta, var hann þeim ásiáandum uppnumenn, og eitt ský tók hann upp burt fyrer þeirra augum.

10. Og þá þeir horfdu efter hönum til himens uppfaranda, siá, þá stódu tveir menn hiá þeim í hvítum klædum.

11. Hverer og sögdu: Þer menn út af Galilea, til hvers standed þer og horfed upp í himenenn? Þesse Jesus, sem uppnumenn er frá ydur til himens, mun koma, líka svo sem þer sáud hann til himens uppfara.

12. Þá snerு þeir aftur til Jerusalem, af því fiallenu, sem kalladest Vidsmörsvidar fiall, hvert nærre er Jerusalem, og liggur eina sabbathsdags leid þadan.

13. Og þá þeir komu inn, gengu þeir upp í loptid, og voru þar, Petur og Jacobus, Johannes og Andreas, Philippus og Thomas, Bartholomeus og Mattheus, Jacobus Alphei sonur, og Simon Zelotes, og Judas Jacobi.

14. Þesser voru aller med einum húga stöduger í bæn og ákalle, med kvinnunum og med Maria, módur Jesu, og hans brædrum.

15. Og á þeim dögum stód upp Petur mille læresveinanna, og sagde (enn flockurenn at vísne, var nær hundrad og tuttagu tilsamans):

16. Þer menn og brædur, þeir-

re ritningu byriade upp at fyllast, hvera heilagur ande ádur fyrer-sagde, fyrer munn Davids, af þeim Judas, sem var leidtogi þeirra, høndlúdu Jesum.

17. Því hann var talenn med oss, og hafde medteked þetta Embætte med oss.

18. Þesse hefir útvegad akurenn fyrer órettferdug verdlaun, og heingde sig, og er í midiu sundur í tvo hlute brostenn, og hans innisti ern og øll úthlaupenn.

19. Og þad er øllum kunnugt orded, þeim sem í Jerúsalem byggia, svo at sá same akur er kall-adur á þeirra túngumále, Hakeldama, þad er blóds-akur.

20. Þvíat svo er skrifad í psalmabókenne: hans setur skal í eyde verda, og eigi se sá nockur, sem þar inne bygger, og hans biskupsdóm medtake annar.

21. Fyrer því skal nú einn af þeim mønnum sem alla tíma hafa med oss verid, frá því drottenn Jesus tók at gánga út og inn vor á mille.

22. Frá skírn Jóhannis, allt til þess dags, sem hann var uppnumenn fra oss, vera einn vottur hans upprisu med oss.

23. Og þeir settu til tvo, Joseph, hann, sem het Barsabas, at vidurnefne Just, og Matthiam.

24. Bádu og søgdu: þú drotten, sem þecker øll hiørtu, syn hvørn þú hefir útvalid af þessum tveimur.

25. Svo at einn medtake þessa Þiónustu, og postula embætte, frá hveru Judas er affallenn, at hann burt fære í sinn stad.

26. Og þeir løgdu hlute yfer þá, og hluturenn fell yfer Matthiam, og hounum var skickad til þeirra ellefu postula.

## 2. Capitule.

1. Og þá fullkomnadest hvítasunnudagurenn, voru þeir aller med einum huga til samans.

2. Og þar vard skyndelega þytur af himne, sem mikell vindur, og fyllte upp allt húsid, í hveru þeir sátu.

3. Og þeir sáu sundurskildar túngur, svo sem være þær glóande. Og hann sette sig yfer serhvern þeirra.

4. Og þeir urdu aller fuller af heiløgum anda, og tóku at tala med annarlegum túngum, efter því sem heilagur ande gaf þeim út at tala.

5. Enn þar voru Gydingar búande til Jerusalem: þeir voru gud-hrædder menn út af allra handa þióð, þeirre sem under himnenum er.

6. Og sem þesse rødd, skede kom almúgenn til samans, og vard undrande, þvíat hver og einn heyrde þá tala sína túngu.

7. Svo þad, at aller tóku at óttast og undrast, og søgdu hver vid annann: siá, eru þesser eigi aller, sem þar tala, út af Galilea?

8. Hvernenn heyrum ver þá hver einn sitt túngumál, þar ver erum inne fædder?

9 Parthi og Medi, og Elamiti, og ver sem búum í Mesopotamia, Judea, Cappadocia, Ponto og Asia.

10. Phrygia, og Pamphilia, á Egyptalande, og í Endemørk-

um Lybie, sem eru nærre Cyrenia, og útlender af Rom.

11. Judar, og Þeir sem Judar hafa gerst, Cretar og Arabiar, ver heyrum Þá tala med vorum túngum Guds furduverk.

12. Enn aller urdu óttaslegner, og undrudust Þad, segiande sin á mille: hvad mun Þetta vilia verda?

13. Enn adrer høfdu Þad at spotte, og søgdu, at Þeir være fuller af sætu víne.

14. Þá geck Petur upp med Þeim Ellefu, hóf upp sína raust, og talade til Þeirra: Þer Gydingar, góder menn, og Þer aller, sem búed í Jerusalem, Þad se ydur kunnugt, og láted ydur mín Ord í eyrum loda.

15. Þvíat Þesser eru eige druckn er, sem Þer meintud, med Því Þad er Þridia stund dags.

16. Helldur er Þetta Þad, hvad sagt var fyrer spámannenn Joel:

17. Þad skal ske á sídustu døgum, seger Gud, at eg vil úthella af mínum anda, yfer allt holld, og syner ydrer og dætur ydrar skulu spá, og ungmenne ydar skulu síóner siá, og ydrer ølldungar skulu drauma dreyma

18. Og eg vil úthella af mínum anda, á Þeim sømu døgum, yfer mína Þióna, og yfer mínar ambátter, og Þeir skulu spá.

19. Og eg skal gera furdanlega hlute á himnum uppe, og teikn á iørdu nidre, blód og elld og reykiarsvælu.

20. Sólenn skal snúast í myrkur, enn túnglid í blód, ádur enn sá hinn mikle og altunne dagur Drottins kóme.

21. Og Þad skal ske, at hver hann ákallar nafn drottens, sá skal hólpenn verda.

22. Þer Israels menn, heyred Þesse Ord: Jesum af Nazareth, einn mann af Gude medal ydar auglystann, med kraftaverkum, stórmerkum og táknum, Þau sem Gud gerde fyrer hann á medal ydar, svo sem Þer og siálfer vitid

23. Þann sama, efter Þad hann var af forÞeinktu ráde Guds og fyrerhugan ofurselldur, hafed Þer teked hann fyrer hendur ránglátra, og krossfest hann og lífláted.

24. Þennann hefir Gud uppreist, at uppleystum daudans kvølum, fyrer Því, at Þad var ómøguleg, at hann skylde af hønum halldenn verda.

25. Þvíat David seger svo af hønum: eg hefe alla tíma drottenn fyrer minne augsyn settann, Því hann er mer til hægre handar, svo at eg hrædest ecke.

26. Fyrer Þad er mitt hiarta gladvært, og túnga mín gledst, og Þar at auk mun mitt holld hvílast í vonenne.

27. Þvíat Þú munt eige forláta mína önd í Helvíte, og eige leyfa, at Þinn heilage skule rotnan siá.

28 Kunna gerder Þú mer lífsins vegu; Þú munt mig med glede fylla fyrer Þínu auglite.

29. Þer menn, góder brædur, leyfed mer einardlega til ydar at tala af forfødurnum David; hann er framlidenn og greftradur, og hans grøf er hiá oss, allt til Þessa dags.

30. Af Því, at hann var nú spámadur, og visse Þad, at Gud hafde hønum med eyde fyrerheited, at hann villde af ávexte hans lenda, efter holldenu, uppvekia

Christum, sem skyllde á hans hióle sitia.

31. Hefir hann þad ádur fyrer sed, og talad af Christi uppristu, at hans sál se eigi í Helvite efterskilenn, og eige hafe hans holld rotnan sed.

32. Þennann Jesum uppvakde Gud, þar til erum ver aller vottar.

33. Nú hann er fyrer Guds hægre hønd upphafenn, og hefir medtekid heilags Anda fyrerheit af fødurnum, úthellte hann þessu, þad þer sáed og heyred.

34. Þvíat David er eige uppstigenn til himna; enn hann seger: drotteun sagde mínnum drottne: sit þú til minnar hægre handar.

35. Þar til eg legg óvine þína til skarar fóta þinna.

36. Því vited þad nú fyrer satt, allt Jsraels hús, at Gud gerde þennann Jesum, hvern þer krosssestud, at einum drottne og Christe.

37. Enn þá þeir høfdu þetta heyrt, geck þad gegnum þeirra hiarta, og søgdu til Peturs og til annara Postulanna: þer menn og góder brædur! hvad skulum ver gera?

38. Petur sagde til þeirra: gered yferbót, og hver ydar einn láte skíra sig, í nafne Jesu Christi, til fyrergefningar syndanna, þá munud þer medtaka heilags anda giøf.

39. Þvíat ydur og ydrum børnum er þetta fyrerheit lofad; og øllum þeim, sem í fiarska eru, hvera helldst Gud drottenn vor mun her tilkalla.

40. Og med mørgum ødrum ordum vitnade hann fyrer þeim, áminte þá og sagde: látid hiálpa ydur frá þessu vonda fólke.

41. Og þeir sem fúsir medtóku hans Ord, letu sig skíra, og þar urdu á þeim dege vidauknar nær þriár þúsunder sálna.

42. Og þeir blifu stødnger í Postulanna Kenningu, og í samneyte, Braudsins Brotningu, og í Bænahallde.

43. Og allra sáler urdu óttafleguar, og þar gerdust mørg teikn og stórmerke fyrer Postulana

44. Enn aller þeir, sem trúader voru ordner, voru til samans, og høfdu alla hlute sameiginlega.

45. Eigner sínar og Godts selldu þeir, og sundurskiptu því medal allra, efter því sem hverum var þørf á.

46. Og jafnann voru þeir daglega med einum huga, hver hiá ødrum í musterenu, og brutu brauden í ímisum húsum, tóku fædsiu.

47. Og lofudu Gud med glede, og einføllðu hiarta, og høfdu nád hiá øllu fólke. Enn drottenn lagde daglega til safnadarens, þá sem hólpner urdu.

## 3. Capitule.

1. Enn þeir Petur og Johannes gengu til samans, upp til Musteresins, um níundu stundu, sem vanalegt var, at bidiast fyrer.

2. Og þar var einn madur, sem halltur var frá módurkvide, sá let bera sig, og þeir settu hann daglega fyrer musterisins dyr, þær sem kølludust Hinar føgru, svo at hann beide ølmosu af þeim, sem inngengu í mustered.

3. Þá hann sá nú Petur og Johannem, at þeir villdu inn gánga í musterið, bað hann, at hønum gæfest ølmusa.

4. Enn Petur horfde á hann með Johanne, og sagde: hórf þú á oss.

5. Enn hann horfde á þá, vonande at hann munde fá nockud af þeim.

6. Enn Petur sagde: silfur og gull hefi eg eige, enn hvad eg hefe, það gef eg þer: Í nafne Jesu Christi af Nazareth, statt þú upp og gack.

7. Og tók í hans hægre hønd, og reisde hann upp.

8. Og jafnsnart stódu hans legger og hælar faster. Hann spratt upp, gat genged og staded, og geck inn med þeim í musterið, geck, stock upp, og lofade Gud.

9. Og allt fólk sá hann gánga, og lofa Gud.

10. Þeir þecktu hann, at hann var sá, sem efter ølmusu hafde setid, fyrer Fogru dyrum musteresins, og þeir fylltust af undran og hrædslu, yfer því sem honum hafde sked.

11. Enn þá þesse hinn halte, sem heilbrigdur var ordenn, hellt sig at Petre, og Johanne; hljóp allt fólked til þeirra, í það forbyrge, sem heiter Salomonis, undrande þetta.

12. Enn þá Petur sá það, andsvarade hann fólkenu: þer Israels menn, hvad undrar ydur þetta, eda hvar fyrer sprokséetid þer oss? svo sem hefdum ver gert þenann gángande fyrer vorn eigenn kraft, og verdskulldan.

13. Gud Abrahams, Gud Isaacs, Gud Jacobs, Gud fedra vorra, hefir auglyst sitt barn Jesum, hvern þer ofurselldud, og neitudud fyrer Pilato, þá hann dæmde, at hann skyllde laus látast.

14. Enn þer afneitudud hinum heilaga og rettláta, og beiddust, at manudrápatenn skyllde ydur gefast.

15. Enn lífsins høfdingja aflífudud þer: þann hefir Gud uppvakt fra daudum, þar erum ver vottar at.

16. Og fyrer trúna á hans nafn hefir hans nafn styrkt þennann, sem þer sjáed og þeckeð. Og trúinn fyrer hann gaf þessum fodda un heilbrigde fyrer ydrum augum.

17. Og nú veit eg, brædur! at þer hafed gert það af óvitsku, svo sem og ydrer høfdingar.

18. Enn Gud, sem fyrer munn allra sinna spámanna hefir ádur kunngera láted, hvernenn Christur ætte at líða, hann fullkomnade það.

19. Fyrer því gered yferbót, og snúest, svo at afmáest synder ydrar.

20. Svo at endurlífgunar tíme kome fyrer Herrans augsyn, nær hann sender þann, sem ydur verdur nú fyrerframm bodadur, Jesum Christum.

21. Hverum byriar himenenn inn at taka, allt til þeirrar stundar, þá aller hluter skulu endurstickader verda. Hvera hlute Gud hefir ádur talad fyrer munn allra sinna heilagra spámanna, frá veralldar upphafe.

22. Því at Moyses hefir sagt til fedranna: spámann mun Gud drottenn ydar uppvekia ydur af brædrum ydrum, mer líkann; hønum

um skulud þer hlyda, í øllu því, sem hann mun segia til ydar.

23 Og þad mun ske, at hver sú sál, sem eige hlyder þeim sama spámanne, skal afmád verda frá fólkenu.

24. Og aller spámenn frá Samuel, og þar efter, svo marger sem talad hafa, þeir hafa af þessum døgum kunngert.

25 Þer erud spámannanna og sattmálans børn, hvern Gud gerde vid fedur vora, þá hann sagde til Abrahams: í þínu sæde skulu blessast allar þióder iardar.

26. Gud, þá hann uppvakde sitt barn Jesum, þá hefir hann fyrst sendt hann til ydar, ydur at blessa, svo at hver einn ydar snerest frá sinne illsku.

## 4. Capitule.

1 Enn sem þeir tøludu til fólksins, komu til þeirra prestar og yferbodarar musteresins og Saducei.

2 Þeim mislíkade þad, at þeir skylldu kenna fólkenu og at þeir bodudu i Jesu upprisu af dauda.

3 Løgdu hendur á þá, og settu þá í vardhalld til hins næsta morguns, þvíat kvøllð var komid.

4 Enn marger af þeim sem ordid heyrdu, trúdu, og tala þeirra manna vard nær fimm þúsunder.

5. Enn at morgne komnum, samansøfnudust høfdingar þeirra og ølldungar, og skriftlærder í Jerusalem.

6 Hannas kennemannahøfdinge, og Caiphas, Johannes, og Alexander, og svo marger, sem þeir voru út af høfudprestanna ætt.

7. Og skickudu þá midt framm fyrer sig og spurdu þá: af hverre makt, eda í hvers nafne gerdud þer þetta?

8. Petur fullur af heiløgum anda, sagde til þeirra: þer høfdingar lydsins, og ølldungar í Israel:

9. Þóat ver verdum dæmder í dag, fyrer þann velgerning, sem ver gerdum þessum siúka manne, fyrer hvern hann vard heilbrigdur,

10. Þá se ydur þad øllum, og øllu Israels fólke kunngert, at þesse stendur í nafne Jesu Christi af Nazareth, þann þer krossfestud, hvern Gud uppvakde af dauda, hér fyrer ydur heilbrigdur.

11. Hann er sá steinn sem útskúfadur er af ydur uppbyggurum, hver ordenn er at hyrningar-steine, og eige er í nockrum ødrum sáluhiálp.

12. Þvíat þar er eigi annad nafn gefid mønnum, í hveriu oss byriar sáluhólpnum at verda.

13 Enn þeir sáu stødugleik Petrus og Johannis, og undrudust þá, því þeir vissu fyrer satt, at þeir voru ólærder og leikmenn, og þecktu þá, at þeir høfdu verid med Jesu.

14. Enn þeir sáu manninn, þann sem heill var ordenn, standa hiá þeim, og kunnu þar eigi í móte at segia.

15. Þá skipudu þeir þeim út, burt fra rádenu, og tóku þá at rádgast um sín í mille.

16. Og søgdu: hvad vilum ver gera þessum mønnum? Þvíat þad teikn, sem af þeim er gert, er opinberlega kunnugt øllum þeim, sem í Jerusalem bygga, og ver getum þuí eigi neitad.

17. Enn svo at þad skule eige

vídara útspyriast medal fólksins, þá ógnum þeim alvarlega, at þeir sege eigi nockrom manne heðan í frá af þessu nafne.

18. Og þeir letu kallá á þá, og budu þeim at þeir tøludu eigi med nockru móte, ne kendu í Jesu nafne.

19. Enn Petur og Johannis svørudu, og søgdu til þeirra: dæmed þer siálfer, hvert það se rett fyrer Gude, at ver skulum framar hlyda ydur enn Gude?

20. Þvíat þad megum ver eige, at ver skulum eige tala, þad, hvad ver høfum heyrt og sed.

21. Enn þeir ógnudu þeim, og letu þá fara, og fundu eige hvernenn þeir gætu pínt þá, fyrer folksins saker, af því, at aller lofudu Gud fyrer þad, sem til hafde bored.

22. Þvíat sá madur var meir enn fiørutíu ára, á hverium skéd var þetta heilsu teikn.

23. Og sem þeir voru lauser látner, komu þeir til sinna, kunngerdu þeim hvad hellst prestahøfdingiarner, og ølldungarner høfdu til þeirra talad.

24. Þá þeir heyrdu þad, hófu þeir upp med einum huga sína rødd til Guds, og søgdu: Drottenn: þú ert sá Gud, sem gerder himen og iørd, siófenn, og alla hlute, hverer í þeim eru.

25. Þú sem sagder fyrer munn þíns þións Davids: fyrer því æddu svo hiner heidnu, og fólked ásette þad, hvad hegómlegt var.

26. Konungar iardarennar komu tilsamans, og høfdingar samankomnudust í eitt, gegn drottne, og gegn hans Christo.

27. Því sannlega komu þeir tilsamans, gegn þínu heilaga barne Jesu, sem þú smurt hafder, Herodes, og Pontverskur Pilatus, samt ødrum heidingum og Israels fólke.

28. At gera hvad þín hønd og þitt rád hafde ádur fyrre hugsad at ske skyllde.

29. Og nú drottenn! lít þú á þeirra heitingar, og gef þínum þiónum med allre diørfung at tala þitt Ord.

30. Og rett þú út þína hønd, svo at þár ske teikn, heilsur manna, og stórmerke, fyrer nafn þíns heilaga barns Jesu.

31. Og sem þeir høfdu bedest fyrer, hrærdest sá stadur, í hverium þeir voru tilsamans safnader, og þeir urdu aller fuller af heiløgum anda, og tøludu Guds ord med diørfung.

32. Enn í søfnude þeirra, sem trúdu var eitt hiarta og ein ønd, og eige sagde nockur þeirra, at þad være sitt sem hann átte, helldur voru þeim aller hluter sameginlegar.

33. Og af miklum krafte, gáfu postularner vitnisburd af upprisu drottins vors Jesu Christi. Og mikel nád var med þeim øllum.

34. Þar var og eingenn þeirra þurfande, þvíat svo marger þeir voru, sem akra eda hús áttu, þeir selldu þad, og færdu peningana fyrer þad sellda góds.

35. Og løgdu þá framm fyrer fætur postulanna, og ser hverum skiptest efter því, sem hann hafde þørf til.

35. Enn Joses, sá sem auknefndur var af postulunum Barnabas (þad þydest Huggunar sonur) Levite at ætt, út af Cypria, hann hafde akur og sellde

þann; bar peningana, og lagde fyrer fætur postulanna.

## 5. Capitule.

1. Enn einn madur, sem Ananias var at nafne, med húsfrú sinne Saphira, sellde eigner sínar.

2. Og dulde nockru af verdenu, at vitund sinnar húsfreiu, enn færde sumann hlut, og lagde til fóta postulanna

3. Þá sagde Petur: Anania, Því uppfyllde Andskotenn hiarta þitt, svo at þú villder liúga at Heilögum Anda, og dulder sumu af peningum akursins?

4. Þú hefder þó mátt vel bihallda hönum, þegar þú átter hann, og þá hann var selldur, var það og svo í þinu valldi: Því áseiter þú þer slíkt í hiarta? eige hefir þú loged at mönnum, helldur at Gude.

5. Enn þá Ananias heyrde þesse Ord, datt hann nidur, og gaf upp öndena. Og stór hrædsla kom yfer alla þá, sem það heyrdu.

6. Enn ungmenne stódu upp, tóku hann burt, báru hann út, og gröfu hann.

7. Og það skede innan skamms, nærre þrem stundum, at hans húsfrú kom þar inn, og visse eige, hvad þar hafde gerst.

8. Enn Petur svarade henne: seg þú mer, hvert þid sellduð akurenn svo dyrt? hún sagde: já, svo dyrt.

9. Þá sagde Petur til hennar: hvar fyrer erud þid þá samhyck ordenn at freista Anda Drottens? sjá þú fætur þeirra, sem jordudu mann þinn, eru fyrer dyrunum úte, og þeir munu þig útbera.

10. Og jafnsnart datt hún nidur fyrer fætur hönum, og gaf upp öndena. Enn úngmennenn komu inn, og fundu hana dauda, báru hana út, og gröfu hana hiá manne sínum.

11. Og miklum ótta sló yfer alla söfnudenn, og yfer alla þá, sem þad heyrdu.

12. Enn mörg teikn og stórmerke gerdust med lydnum, fyrer postulanna hendur, og aller voru þeir ásamt med einum huga, í forbyrge Salomonis.

13. Og enger adrer dyrsdust at samlaga sig þeim, helldur miklade þá lydurenn.

14. Þar iukust jafnann fleyre vid, mikell fiölde karla og kvenna, sem á Drottenn trúdu.

15. Svo at þeir báru út vanfæra menn á strætenn, og lögdu þá á sængur og börur, svo at þá Petur kæme, at hans skugge skygde á nockora af þeim.

16. Þar komu og marger til samans, út af þeim borgum, sem lán kringum Jerusalem, og færdu med ser siúka menn, og þá, sem af óhreinum öndum kvalder voru, hverer aller urdu heilbrigder.

17. Þá stód upp kennemanna höfdingenn, og þeir aller, sem med hönum voru (hverer voru villuflocker Saduceorum) og uppfylltust af vandlæting.

18. Og lögdu hendur á postulana, og settu þá inn í almennelegt fángelse.

19. Enn engell Drottenns komum nóttena, og lauk upp dyrum myrkrastofunnar, leidde þá út og sagde:

20. Fared, stiged upp, og tal-

ed til fólksins í musterenn øll þesse lífsins ord.

21. Þá þeir høfdu þad heyrt, gengu þeir snemma í musterid, og kendu. Enn sem kennemanna-høfdingenn kom til, og þeir sem med hønum voru, kølludu þeir samann ráded og alla øldunga Israels barna, og sendu til myrk-rastofunnar, þá at sæka.

22. Enn þá þenararner komu þar, og fundu þá eige í myrk-rastofunne, hvurfu þeir aftur, og kunngerdu þeim þad, og søgdu:

23. Myrkrastofuna fundum ver lyckta med allre aðhygle, og vardmennena standande þar framan fyrer dyrunum, enn þá ver luktum upp, fundum ver øngann þar inne.

24. Enn þá sá ypparste Prestur og høfudsmadur musteresins, og adrer fleyre kennemannahøfdingar heyrdu þesse Ord, tóku þeir at verda efablanduer um þad, hvad þá villde verda.

25. Þá kom þar nockur, sá undervíssade þeim: siáed! þeir menn sem, þer settud í myrkrastofuna, eru í musterenu, standa og kenna fólkenu.

26. Þá fór høfudsmadurenn med þenurunum, og sókde þá fyrer utann ofurvalld, þvíat þeir óttudust fólked, at þeir yrdu eige med grióte grytter.

27. Og sem þeir søktu þá, stickudu þeir þá fyrer ráded. Kennemannahøfdingenn spurde þá at, og sagde:

28. Høfum ver eige alvarlega boded ydur, at þer skylldud eige kenna í þessu nafne? og siáed: þer hafed uppfyllt Jerusalem med ydre kenning, og þer viled leida yfer oss þessa manns blód.

29. Enn Petur svarade, og sagde, og þeir postularner: fram-ar ber ad hlyda Gude enn mønnum.

30. Gud fedra vorra uppvakde Jesum, hvern þer lífe sviptud og upphengdud á tre;

31. Þennann hefir Gud fyrer sína hægre hønd upphafid til eins høfdinga og lausnara, at veita Israel idran, og syndanna fyrer-gefning

32. Og ver erum hans vottar til þessara orda, og Heilagur Ande, hvern Gud gaf þeim sem hønum hlyddu.

33. Enn þá þeir heyrdu þad, geck þad gegnum þeira hiørtu, og þeir hugsudu sér at lífláta þá.

34. Þá stód einn Phariseare upp í rádenu, Gamaliel at nafne, einn skriftlærdur, mikels virdtur af øllu fólke, og baud at postul-arner skyndu víkia út um stundar saker.

35. Og sagde til þeirra: þer menn af Israel! taked ydur í akt, hvad þer skulud gera vid þessa menn.

36. Fyrer þessa daga reis upp Theudas, segande sig nockurn vera, hverum samsinnte tal manna, nær fiórum hundrudum, hver í hel er slegenn, og aller þeir sem til hans fellu eru í sundur dreifder, og at engu ordner.

37. Efter hann stód upp Judas af Galilea, á skattnardøgum, og snúnere miklu fólke med ser, og hann fyrerfórst einnenn, og aller, svo marger, sem hønum samstunntu, eru sundur tvistrader.

38. Og nú sege eg ydur: gefed upp vid þessa menn, og láted þá

vera. Þvíat ef þetta ráð eda verk er af mønnum, þá verdur þad at engu.

39. Enn ef þad er af Gude, þá kunned þer þad eigi at kefia, svo at eigi verded þer sundner svo sem þeir, hverer vilia strída móte Gude. Þá samsinntu þeir hønum.

40. Og kølludu á Postulana, og strÿktu þá, og budu þeim, at þeir toludu eige í nafne Jesu, og leitu þá fara.

41. Enn þeir gengu glader burt frá ráduns ásióna, at þeir høfdu þess verduger vered, at lída hádung, fyrer Jesu nafns saker.

42. Og hvern dag í musterenu og øllum húsum gátu þeir eige upp at kenna, og at predika evangelinm út af Jesu Christo.

## 6. Capitule.

1. A þeim døgum, sem voxs tala læresveinanna, biriadest møgl med ur þeim Griskn, gegn hinum Ebresku, af því at ekkiur þeirra fyrerlitust í daglegre þiónustu.

2. Þeir tólf kølludu þá tilsamans fiølda læresveinanna, og søgdu: þad er eigi þenanlegt at ver forlátum Guds ord, og þiónum fyrer bordum.

3. Fyrer því, góder brædur, skygnest um sín á mille efter þeim siø mønnum, sem gódt mannord hafa, og fuller eru med vitsku, og Heiløgum Anda, hvera ver megum skicka yfer þessa naudsyn.

4. Enn ver vilum í bæneune og ordsins embætte áframmhallda.

5. Og þesse ord þócknudust vell øllum almúganum. Og útvøldu Stephanum, einn mann fullann trúar, og Heilags Anda, Philippum og Prochorum, Nicanor og Timon, Parmenam og Nicolaum, sem Gydingur hafde gerst, úr Antiochia.

6. Þessa skickudu þeir framm fyrer postulanna augsyn, báduft fyrer, og løgdu sínar hendur yfer þá.

7. Og Guds ord tók at vaxa, og læresveinanna tala margfalldadist nærsta til Jerusalem, og marger Prestar gerdust trúune hlyduger.

8. Enn Stephanus fullur af trú og styrkleika, gerde furduverk og táku mikel medal fólksins.

9. Þá stódu upp nockorer af þeirra samkundu, sem kalladest Libertinorum, Cyrenorum og Alexandrinorum, og þeirra, sem voru úr Cilicia, og Asia, þreytande spurningar vid Stephanum.

10. Og þeir gátu eigi mótstaded þeirre speke, ne þeim anda, sem talade.

11. Þá settu þeir til nockora menn, sem søgdu: ver heyrdum hann mæla hádungar ord móte Moyse og móte Gude.

12. Og æstu svo upp lydenn og ølldungana, og hina skriftlærdu, gengu at framm og gripu hann, og burt leiddu hann fyrer ráded.

13. Og settu til língvotta sem søgdu: þesse madur lætur eigi af at tala hádyrde gegn þessum heilaga stad, og løgmálenu.

14. Þvíat ver heyrdum hann sega: Jesus af Nazareth mun þennann stad nidurbrióta, og umhverfa þeim setningum, sem Moyses hefir oss gefid.

15. Og aller sem í rádenu sátu, horfdu á hann, og sáu, at hans ásiána vard svo sem annar engils ásiána.

# 7. Capitule.

1. Þá sagde kennemannahøfdingenn: er þetta svo vared?

2. Enn hann sagde: góder brædur og fedur t heyred til: Gud dyrdarennar, birtest fodur vorum Abraham, þá hann var í Mesopotamia, ádur enn hann bió í Haran.

3. Og sagde til hans: far þú út af þínu lande, og frá ættfólke þínu, og far til þess lands, hvert eg mun syna þer.

4. Þá geck hann út af Chaldealande, og bygde til Haran. Og efterá, þá hans fader var látenn, flutte hann híngatyfer, í þetta land, í hveru þer byggeд nú.

5. Og gaf honum enga arftöku þar inne, og ecke þverfótar breidd, enn het þó at gefa honum þad til eignar, og hans sæde efter hann, þá hann hafde enn nú ecke barn.

6. Enn svo talade Gud: þitt sæde skal útlendt verda á annarlegre iördu, og þeir munu þiá þad í þrældóme, og þvínga þad illa í fiögurhundrud ár.

7. Og þá þióд, hverri þeir munu þióna, vil eg dæma, sagde Gud, og efter þad munu þeir gánga út þadann, og þióna mer í þessum stad.

8. Og hann gaf honum sáttmálann umskurdarens, og hann gat Isaac, og umskar hann á áttunda dege, enn Isaac, Jacob, enn Jacob þá tolf forfedur.

9. Og forfedurner hötudu Joseph, og seldu hann í Egyptaland: enn Gud var med honum.

10. Og frelsade hann úr öllum hans hörmungum, og gaf honum nád og vísdom í auglite Pharaonis, kononglins af Egyptalande: og hann sette hann höfdinga yfer Egyptaland, og yfer allt sitt hús.

11. Og þar kom húngur yfer allt Egyptaland, og Canaan, og ein stór hörmung, og vorer fedur fundu eigi fædsln.

12. Enn Jacob heyrde, at korn var á Egyptalande, og sende út í fyrstu fedur vora.

13. Og í annad sinn vard Joseph þecktur af sínum brædrum, og Pharaoni gerdest kunnug Josephs ætt.

14. Enn Joseph sende út og let sæka födur sinn Jacob, og alla sína ættkvísl, fimm og siötyge sálna.

15. Og Jacob fór ofann til Egyptalands, og ex andadur, hann og fedur vorer.

16. Og eru fluttir yfer um til Sichem og lagdir í þá gröf, hvera Abraham keypte med silfre af börnum Hemors í Sichem.

17. Enn þá fyrerheitesins tíme kom, hveru Gud hafde svared Abraham, vóx fólkid og margfalldadest á Egyptalande.

18. Allt þángad til at annar kononguг kom upp, hver ecke visse út af Joseph.

19. Hann höndlade svikfamlega vid vora ætt og drygde íllt vid fedur vora, og skickade, at út skyllde kasta þeim úngu börnum, svo þau lifdu eige.

20. A þeim tíma föddest Moyses, og var eitt dægilegt barn fyrer Gude, og var þriá manude fostradur í síns födurs húsi.

21. Enn þá hann var út borenn, tók dotter Pharaonis hann upp og ól ser hann upp fyrer son.

22. Og Moyses vard mentadur í allre speke Egyptskra manna, og vard volldugur í verkum og ordum.

23. Enn þá hann var fiørutíu ára gamall, flaug hønum í hiarta, at finna brædur sína, Israels børn.

24. Og hann leit þann óreti þolde, stód hiá hønum, og hefnde þess órets, sem yferfallenn var, á þeim hinum egyptska manne.

25. Enn hann meinte, at síner brædur skylldu skilia, at Gud gaf þeim heill fyrer hans hønd, enn þeir underskildu þad eigi.

26. Og annann dag kom hann til þeirra, þar þeir voru at þrátta sín á mille, og tók at semia frid med þeim, og sagde: þer góder menn erud brædur, fyrer því gerer hver ydar ødrum óret?

27. Enn sá sem sínum náunga gerde óret, stiakade hønum frá ser og saade: hver sette þig høfdinga eda dómara yfer oss?

28. Eda villt þú dreva mig, svo sem þú drapst í gær þann egyptska mann?

29. Enn Moyses flyde fyrer þeirre rædu, og vard útlendur í landenu Madian, hvar hann átte tvo sonu.

30. Og fiórumtygum ára þar epter, byrtest hønum, í eydemørku á fiallenu Sinai, engell Drottens í elldsloga í runnenum.

31. Enn þá Moyses sá þad, undradest hann synena. Og þegar hann geck til og villde hyggia at, skede rødd Drottins til hans:

32. Eg em Gud fedra þinna, Gud Abrahams, og Gud Isaacs, og Gud Jacobs. Enn Moyses vard óttasleginn, og þorde eigi at athyggia.

33. Enn Drottinn sagde til hans: leys þú af þer skókløde fóta þinna, því at sá stadur þú stendur á, er heiløg jørd.

34. Eg hefi vel sed hvad fólk mitt lídur, sem er á Egyptalande, og þeirra andvarpan hefi eg heyrt, og eg em ofannkomenn þá at frelsa: far nú hingat, eg vil senda þig til Egyptalands.

35. Þennann Moysen, hverum þeir afneitudu og søgdu: hver sette þig til høfdinga og dómara? þann sama sende Gud þeim til høfdinga og frelsara, fyrer hønd þess engels, sem hønum byrtest í runnenum.

36. Þesse leidde þá út, gerande tákn og stormerke á Egyptalande, og í hafenn rauda, og svo á eydemørkunne í fiørutíu ár.

37. Þesse er sá Moyses, sem sagde til Israels barna: Drottenn ydar Gud mun einn spámann uppvekia ydur af brædrum ydrum líkann mer, hønum skulud þer hlyda.

38. Þesse er sá, sem var á eydemørku, í samkundunne med Engleunum, hver ed talade vid hann á fiallenu Sinai, og vid fedur vora; þesse medtók þad lifanda ord, svo hann gæfi oss þad.

39. Hverum eigi villdu hlyda ydrer fedur, helldur skúfudu þeir hønum frá ser, og snerust med sínum hiørtum til Egyptalands.

40. Segande til Arons: gior þú oss Gude, þeir fyrer oss skulu gánga, því ad ver vitum eigi hvad af þeim Moyse er ordid, sem oss leidde út af Egyptalande.

41. Og gerdu ser í þann tíma kálf, og offrudu því skúrgode offur, og glødduft af sínum handaverkum.

42. Enn Gud snere ser, og gaf þá þángat, hvar þeir þentu himensins her, efter því sem skrifad stendur í spámanna bókenne: hafid þer af Israels húse í þáng fiorutíu ár, á eydemørkunne, offrad mer offre edur fenade.

43. Og þer medtókud tialldbúd Molochs og stiørnu Guds ydvars Remphan, þær minder sem þer giørdud ydur at tilbidia þar. Og eg mun útskúfa ydur allt út yfer Babylon.

44. Vorer fedur høfdu vitnisburdarens tialldbúd á eydemørkunne, svo sem hann hafde þeim fyrerskipad, þá hann sagde til Moysen, at hann skullde hana gera efter þeirre mind, sem hann hafde sed.

45. Hvera vorer forfedur medtóku, og fluttu hana med Josua í þad land, sem heidingar helldu, hverum Gud útskúfade fyrer augsyn fedra vorra, allt til daga Davids.

46. Hann fann nád hiá Gude, og bad, at hann mætte tialldbúd finna Gude Jacobs.

47. Enn Salomon uppbygde hønum hús.

48. Enn sá hinn hæfste bygger eigi í þeim musterum, sem med høndum eru gerd, svo sem spámadurenn seger.

49. Himenenn er minn stóll, enn jørdenn er skør minna fóta, hvada húse viled þer þá uppbyggia mer? seger Drottenn: eda hver er stadur minnar hvíldar?

50. Hefir eige mín hønd gert allt þetta?

51. Þer hardsvírader, og ónumskorner í hiørtum og eyrum, þer standed iafnann móte Heiløgum Anda, svo sem fedur ydir, líka ninnenn þer.

52. Hvern spámanna hafa ydrir fedur eigi afsokt? og þá í hel sleged, sem fyrerframm bodudu tilkómu hins rettláta? hvers svikarar og mordingar þer erud nú ordner.

53. Þer hafed medteked løgmáled fyrer Englanna tilskickan, og hallded þad eige.

54. Sem þeir heyrdu þetta, geck þeim þad gegnum hiørtunn, og þeir nístu tønnum yfer hønum.

55. Enn med því hann var fullur af Heiløgum Anda, hóf hann upp sín augu til himens, og sá Guds dyrd, og Jesum standa til hægre handar Gude.

56. Og sagde: sláed, eg se himnana opna, og mannsins son standa til Guds hægre handar.

57. Enn þeir kølludu upp hárre røddu, og samanluckttu sín eyru, og gerdu hønum árás, med einum samdrætte.

58. Hnepttu hann út af borgenne, og grýttu hann. Enn vottarner løgdu sín klæde til fóta eins ungmennis, sem Saul het.

59. Og lømdu Stephanum grióte. Hann kallade upp og sagde: Drottenn Jesu! medtak þú minn anda!

60. Enn hann kraup nidur, og kallade hárre røddu: Drottenn! tilreikna þeim eigi þessa synd. Og sem hann hafde þad sagt, sofnade hann.

## 8. Capitule.

1. Enn Saul hafde þocknast hans dande, og þá biriadest í þann tíma mikel offókn móte søfnudenum í Jerusalem. Og

þeir tvistrudust aller burt um herod Judeæ og Samariæ, utan postularner.

2. Enn gudhræddar menn bingu um Stephanum, og báru trega mikenn yfer hönum.

3. Enn Saul eydde ssfnudenn gángande allstadar í hús inn, og dragande út menn og kvinnur, afhendte þá í fángelse

4. Enn þeir sem tvistrader vorn, fóru umkring og predikudu orded.

5. Philippus kom og ofann til nockorar borgar, í Samaria, og predikade þeim af Christo.

6. Og fólked tók med einu samhellde at heyra, og gætur at því at gefa, sem af Philippo sagdest, siáande á þau teikn, sem hann gerde.

7. Þvíat óhreiner andar fóru út af mörgum, þeim, sem óder voru, med ópe miklu Og marger icktsiúker og hallter urdu heilbrigder.

8. Og þar vard mikell fögnudur í þeirre borg.

9. Enn þar var einn madur, sem Simon het, sem ádur hafde fared med galldra, í þeirre borg, og töfrad þá Samversku þiód, og hann hellt sig vera nockurs háttar mikenn.

10. A hvern þeir litu aller, frá hinum minsta til hins mesta, segiande: þesse er kraftur Guds, sá mikell er.

11. Enn þeir álitu hann af því, at hann hafde í lángann tíma ært þá med sinne fiolkinge.

12. Og þá þeir trúdu nú Philippi predikun af Guds ríke, og af nafne Jesu Christi, skírdust bæde menn og konur.

13. Þá trúde og Simon og let sig skíra, og hellt sig at Philippo. Enn þá hann sá þau teikn og kraftaverk, sem skedu, forundrade hann.

14. Og þá postularner í Jerusalem heyrdu þad, at Samaria hefde medteked Guds ord, sendu þeir til þeirra Petrum og Johannem.

15 Og þá þeir ofann komu, bádu þeir fyrer þeim svo, at þeir medtæku Heilagann Anda

16. Þvíat hann var enn eige komenn yfer nockurn þeirra, nema þeir voru at eins skírder í nafne Drottens Jesu.

17. Þeir lögdu þá hendur yfer þá, og þeir medtóku Heilagann Anda.

18 Enn þá Simon sá þad, at Heilagur Ande vard gefinn fyrer handa uppálegging postulanna, baud hann þeim peninga.

19 Og sagde: gefid þer mer og þetta valld, svo at yfer hvern eg legg hendur, at hann medtake Heilagann Anda.

20 Enn Petur sagde til hans: vertþú fordæmdur med þínum peningum, því þú meinar Guds gáfu med pening útvegast.

21. Hverke hlutskifte ne part hefir þú í þessu Orde, þvíat þitt hiarta er eige rettferdugt fyrer Gude.

22. Fyrer því ger idran, og snú þer frá þessare þinne illsku, og bid Gud um, ef verda mætte, at þer fyrergefist þesse ill meining þíns hiarta.

23. Þvíat eg se þig vera fullann at beisku galle, og í fiötre ránglætesins.

24. Þá svarade Simon og sagde: bided þer fyrer mer til Drottins, svo at ecke kome yfer

mig nockot af því, sem þer sögdud.

25. Enn þá þeir höfdu vitnad, og talad ord Drottins, sneru þeir aftur til Jerusalem, og predikudu Evangelium í mörgum Samverskum kauptúnum.

26. Enn Engell Drottins talade til Philippum, og sagde: statt þú upp, og gack í sudur, á þann veg sem liggur frá Jerusalem, ofann til Gaza, þár sem eydemörkenn er.

27. Hann stód upp og geck burt, og siáþú, at morlendskur madur, gelldingur og villdarmenne Drottningarinnar Candaces í Morlande, hver yfer var settur allar hennar fiárhirdslur, var farenn til Jerusalem, at tilbidia.

28. Og fór nú heim á veg, og sat í sínum vagne, lesande Esaiam spámann.

29. Enn andenn sagde til Philippum: gack þángat at, og hallt þú þer at þeim vagne.

30. Þá skundade Philippus þángat at, og heyrde, at hann var at lesa Esaiam spámann og sagde: skilur þú nockud, hvad þú les?

31. Enn hann svarade: hvernig má eg kunna þad, nema at nockur leidrette mig? þá bad hann Philippum at hann stigе upp, og sæte hiá ser.

32. Enn ritningarinnar innehalld, þad hann las, var þetta: svo sem sandur er hann til slátrunar leiddur, og þeigiande sem lamb, fyrer þeim þad klipper, líka svo hefir hann og eige uppluked sínum munne.

33. J hans læckan er hans dómur upphafenn, enn hver mun leingd hans lífdaga út mega segia? þvíat hans líf er af iördu burtteked.

34. Þá svarade gelldingurenn Philippo, og sagde: eg beide þig, af hverium talar spámadurenn þetta, siálfum ser, eda um nockurn annann.

35. Enn Philippus lauk upp sínum munne, og tók til í frá þessare skrift, og bodade hönum evangelium af Jesu.

36. Og þá þeir fóru um veginn, komu þeir at vatne nockru, og gelldingurinn sagde: siáþú vatnid, hvad hamlar því, at eg láte mig skíra?

37. Enn Philippus sagde: ef þú trúer af öllu hiarta, þá hæfer þad. Hann svarade og sagde: eg trúe, at Jesus Christus se Guds sonur.

38. Og hann baud at vagnenn stadnæmdest. Og þeir stigu báder nidur í vatnid, Philippus og Gelldingurenn, og hann skírde hann.

39. Enn sem þeir voru uppkomner úr vatnenu, greip ande Drottens Philippum burt, og gelldingurenn sá hann ei framar meir, enn hann fór gladur sína götu.

40. Enn Philippus fanst í Asoto, geck umkring, og predikade Evangelium í öllum stödum, þar til hann kom til Cesaream.

## 9. Capitule.

1. Enn Saul bles ógnum og morde gegn lærisveinum Drottins, og geck til kiennemannhöfdingans.

2. Og beiddest af hönum brefa til samkundanna í Damasco, svo at, ef hann fynde þar nockora á

þeim vege, karla eda kvinnur, at hann færde þá bundna til Jerusalem.

3. Og sem hann var á vegenum, og komenn hartnær Damasco, leiftrade í skyndingu um hann liós af himne.

4. Og hann fell til jardar, og heyrde rødd sem til hans saa de: Saul! Saul! því ofsæker þú mig?

5. Enn hann sagde: Herra, hver ert þú? Drottenn sagde: eg em Jesus, hvern þú ofsæker, hardt er þer at spyrna móte broddenum.

6. Enn hann skiálfande og felmtsfullur sagde: Drottenn, hvad villt þú eg gere? Drottenn sagde til hans: statt þú upp, og gack inn í borgena, og þar mun þer sagt verda, hvad þer byriar at gera.

7. Enn þeir menn, sem í selskap med hønum voru, stódu felmtsfuller, því þeir heyrdu hans rødd, enn sán þó engann.

8. Enn Saul stód þá upp frá jørdunne, og med upploknum augum, sá hann engann; þá tóku þeir í hønd hans, og leiddu hann inn í Damascum.

9. Og svo var hann í þria daga, at hann sá eigi, og ecke át hann, ne drack.

10. Enn í Damasco var sá læresveinn, sem Ananias het, og í syn þá sagde Drottenn til hans: Anania! enn hann sagde: her em eg Herra.

11. Drottenn sagde til hans: statt þú upp og gack í þad stræte, sem kallast Hid retta, og spyr at í húse Juda, efter þeim, sem Saul er at nafne, útaf Tharsen, því siá, at hann bidst fyrer.

12. Og í Sión sá hann inn til sín koma einn mann, Ananias at nafne, leggande hønd yfer sig, svo at hann yrde siáande aftur.

13. Ananias svarade: Drottenn! út af mørgum hefi eg heyrt um þennann mann, hvad miked illt hann hefir gert þínum heilogum til Jerusalem.

14. Og hann hefir út af kennemannahøfdingum valld til at binda þá alla, sem þitt nafn ákalla.

15. Enn Drottenn sagde til hans: far þú, því at þesse er mer útvaled verkfære, at hann bere mitt nafn fyrer heidenn lyd, og konunga, og fyrer Israels børn.

16. Eg vil syna hønum hversu miked hann skal líða fyrer míns nafns saker.

17. Og Ananias fór af stad, og geck inn í húsid, lagde yfer hann hendur, og sagde: Saul bróder! Drottenn sende mig hingat, hver þer byrtest á vegenum, þeim sem þú kómst hingat svo at þú fenger syn aftur, og uppfylltest Heilogum Anda.

18. Og jafnskióte fell af hans augum svo sem annad hreistur, og hann feck syn aftur. Hann stód upp og let skíra sig.

19. Tók síðann fædslu til sín, og styrkte sig. Saul var þá nockora daga hiá þeim læresveinum í Damasco.

20. Og jafnsnart predikade hann Christum í samkundúhúsunum, at hann hinn sami være Guds sonur.

21. Enn þeim bløskrade øllum, sem þad heyrdu, og tóku at segia: er þesse eige sá, sem til Jerusalem foreydde øllum þeim, sem þetta nafn ákølludu; og hingat kom til

þess, at leida þá bundna fyrer kennemannahøfdingana?

22. Enn Saul tók at styrkast miklu framar, og hneckte þeim Gydingum, sem í Damasco bingguu; og bevísade, at þesse være Christur.

23. Og mørgum døgum þar efter, helldu Gydingar rádstefnu sín á mille, at þeir aflífudu hann.

24. Enn þeirra velræde urdu Saul undervísud. Enn þeir vardveittu nótt og dag porten, svo at þeir fengu hann íhelsleged.

25. Þá tóku hann læresveinarner um nótt, og letu hann yfer múrenn, og letu í kørf ofann síga.

26. Enn þá Saul kom til Jerusalem, freistade hann þess, at samlaga sig til læresveinanna, og þeir óttudust hann aller, trúande eige því, at hann være læresveinn.

27. Enn Barnabas tók hann til sín, og leidde til postulanna, og sagde þeim frá, hversu hann hafde sed Drottenn á vegenum, og þad hann hafde talad vid hann, og hvernenn hann hefde til Damasco diarflega predikad nafn Jesu.

28. Og hann var hiá þeim, geck út, og inn til Jerusalem, og predikade nafn Drottins vors Jesu diarflega.

29. Þá tók hann at tala, og heya spurningar vid hina Grickn. Enn þer leitudu vid at lifláta hann.

30. Þá brædurner fornumu þad, leiddu þeir hann út til Cesaream, og sendu hann til Tharsen.

31. Og svo hafde søfnudurenn frid um alla Judeam og Galileam, og Samariam, hresstu sig upp, og gengu í ótta Drottens, og uppfylltust med huggun Heilags Anda.

32. Þad skede og, þá Petur ferdadest allstadar umkríng, at hann kom einnenn til þeirra heilagra, sem binggu í Lidda.

33. Þar fann hann þann mann sem Eneas var at nafne, hver leged hafde í reckiu í átta ár, hann var icktsiúkur.

34. Petur sagde til hans: Enea, Jesus Christur gere þig heilann, statt þú upp, reid siálfur um þig Og hann stód jafnsnart upp.

35. Og aller sáu hann, þeir sem binggu í Lidda, og í Sarona, og þeir sneruft til Drottins.

36. Enn í Joppe var sú lærdomsins þiónustukvinna, sem Tabitha var at nafne, þat útlegst rá, hún var full gódra verka, og med ølmøsugerdum, sem hún gerde.

37. Enn á þeim døgum bar svo til, at hún tók sótt og andadest. Og sem þeir hofdu þvegid hana, settu þeir hana í loptid.

38. Enn med því at Lidda liggur í grend vid Joppen, og þá læresveinarner heyrdu þad, at Petur være þar, sendu þeir til hans, og bádu hann, at hann leti ser ecke þúngt þykia til þeirra at koma.

39. Enn Petur stód upp, og fór med þeim. Og þá hann kóm þar, leiddu þeir hann upp í loptid. Og allar eckiurnar flycktust utann umkring hann grátande, og syndu hønum þá kyrtla og klædnad, sem Diá hafde gert á medann hún var hiá þeim.

40. Og sem Petur hafde þá

alla útdrifed, fell hann á knen, badst fyrer, og snerest at líkamanum, og sagde: Tabitha, statt þú upp. Enn hún lauk upp sínum augum, og þá hún sá Petrum, sette hún sig upp aftur.

41. Enn hann rette at henne høndena, og reiste hana upp, og kallade á hina heiløgu, og á eckiurnar, og afhendte þeim hana lifande.

42. Og þad kunngerdest um alla Joppen, og marger trúdu á Drottenn.

43. Þat skede og svo, at hann bleif lánga tíma í Joppe, hiá Simone þeim nockrum, sem var einn sútare. -

## 10. Capitule.

1. Enn sá madur nockur var í Cesarea, sem Cornelius var at nafne, høfudsmadur yfer þeirre sueit, sem kalladest Valer.

2. Gudlegur madur og gudhræddur, med øllu sínu húsi, gefande fólkenu miklar ølmósur, og var jafnann á bæn til Guds.

3. Han sá opinnberlega í syn, nær níundu stundu dags, engel Guds gánga inn til sín, sem sagde til hans: Corneli.

4. Enn hann horfde á hann óttaslegenn, og sagde: hvad er þad, Herra? Hann sagde hønum þá: bæner þínar og ølmusugerder eru uppstignar til minnis fyrer Gude.

5. Og send nú út menn til Joppen, og lát sækia Simon, hver kalladur er Petrus.

6. Hann herbergar hiá Simone sútara einum, hvers hús liggur vid sióenn, hann mun segia þer hvad þer byriar at gera.

7. Enn sem engellenn, sem talade vid Cornelium, var burt gengenn, kallade hann á tvo sína heimilis þióna, og einn gudhræddann strídsmann, útaf þeim sem hans gættu.

8. Hverium hann sagde allt frá, og sende þá til Joppen.

9. Enn annann dag þá þeir voru á leidenne, og tóku at nálgast borgena, ste Petur uppá loptid, at hann bædest fyrer, nær siøttu stundu.

10. Og þá hann húngrade, villde hann matar neyta. Enn á medan þeir voru at búa til, vard hann burtricktur.

11. Og hann sá himenenn opnadann, og ofann fara at ser eitt ker, svo sem líndúk mikenn í fiórum hyrningum uppbunded, og þad vard ofanláted á jørdena.

12. Í hveru at voru allra handa ferfætt dyr jardar, villudyr og skridkvikende, og fuglar himens.

13. Og þar skede rødd til hans: statt þú upp Petur, slátra og et.

14. Enn Petur sagde: ó nei, Herra, þvíat eg hefe enn alldrei nockud almennelegt eda óhreint etid.

15. Og røddenn sagde enn aftur í annad sinn til hans: hvad Gud hreinsade, þad ger þú eige almennelegt.

16. Þetta skede þrisvarsinnum, og kered vard uppnumed aftur til himens.

17. Og sem Petur var efablandenn um med siálfum ser, hver þesse syn munde vera, sem hann hafde sed, siáþú, at þá spurdu þeir menn, sem út voru sender frá Cornelio, efter húsi Simonar.

18. Og stódu úte fyrer dyrum

ûm, kolludu og leitudu, hvert Simon, sem kallast Petur, hefde þar herberge?

19. Enn sem Petur hugleidde um synena, sagde andenn til hans: Siá, þeir menn leita at þer.

20. Enn statt þú upp, far ofan, og gack med þeim, og efa ecke, þviat eg útsende þá.

21. Þá stê Petur ofann til þeirra manna, sem sender vorn til hans frá Cornelis, og sagde. Siaed, eg em hann hinn same at hverum þer spyred: hver efne eru til þess, at þer erud her komner?

22. Þeir sögdu: höfudsmadur, enn Cornelius, rettlátur madur og gudhrædður, hafande gódann ordstyr af öllu Gydinga fólke, feck bifalning af heilögum engle, at hann skyllde láta kalla þig í sitt hús, svo at hann heyrde orded af þer.

23. Og þá kallade hann þá inn, og lede þeim herberge. Annann dag efter ferdadest Petur med þeim og nockorer brædur af Joppe gengu med hönum.

24. Og annars dags þar efter komu þeir til Cesaream, enn Cornelius beid þeirra, og samankallade sína frændur og virtar vine.

25. Og sem Petur vilde ganga inn, geck Cornelius móte hönum, og fell till til fóta hans, og tilbad hann.

26. Enn Petur reiste hann upp, og sagde: statt þú upp! eg em og madur.

27. Og þá hann hafde haft samtal vid hann, geck hann inn, og fann þá marga, sem þar vorn samankommer.

28. Og sagde til þeirra: þer vitid, at þad er ecke veniuglegur hlutur þeim manne sem Gyðingur er, at fella sig vid, eda ganga til útlendra manna, enn Gud synde mer, at eg segde enganu mann almennann, eda óhreinann.

29. Hvar fyrer eg neitade eigi at koma, þá eg var hingat kvaddur, því spyr eg ydur nú at, hvar til þer letud kalla mig hingat?

30. Cornelius sagde: í dag er fiórde dagur frá þeim eg var fastande, allt til þessarar stundar, og um níunda stundu, badst eg fyrer í mínu húsi, og siá, þá geck einn madur framm fyrer mig, í skínande klæde.

31. Og sagde: Corneli, þin bæn er alheyrd, og þínar ölmosur eru umþeinktar fyrer Gude.

32. Af því send þú nú til Joppen, og lát kalla hingat Simon, hver auknefndur er Petrus, hann herbergar í húsi Simonar sútara, vid siöenn, þá hann kemur, mun hann tala fyrer þer.

33. Þá sende eg jafnsnart til þín, og þú gerder vel, at þú ert komenn; nú erum ver her aller nálæger fyrer Gude, til at heyra þá alla hlute, sem þer eru af Gude bodner.

34. Enn Petur lauk upp sinn munn og sagde: nú reyne eg í sannleika, at þar er eige manngreinarmunur hiá Gude.

35. Helldur á medal alls fólks, hver sem hann óttast, og gerer rettvísé, sá er hönum þeckur.

36. Þer vitid af þeirre predikun, sem Gud sende til Israels barna, bodande þeim frid fyrer Jesum Christum (hann sem er Drotten yfer öllum hlutum).

37. Hvad skied er allt Gydingaland gegnum, og fyrst hófst upp í Galilea, efter þá skírn sem Johannes predikade, hvernenn Gud hefde smurt þann sama.

38. Jesum af Nazareth med Heilögum Anda og krafte, hver umkring geck, gerde godt, og græðde alla þá, sem af diöflenum voru underþrickter, af því, at Gud var med hönum.

39. Og ver erum vottar alls þess hann gerde á Gydingalánde, og í Jerusalem; þennann aflífudu þer, og á tred uppheingdud.

40. Þennann uppvakde Gud'á þrida dege, og let opinnberann verda.

41. Ei öllu fólke, helldur oss, sem ádur vorum hans útvalder vottar af Gude, ver sem átum og druckum med hönum, efter þad hann var upprisinn af dauda.

42. Og hann baud oss at predika fólkenu, og vitne umbera, at hann være sá, sem skickadur er af Gude, dómare lifendra og daudra.

43. Af þessum bera aller spámenn vitne, at fyrer hans nafn skulu aller þeir, sem á hann trúa, hafa syndauna fyrergefning.

44. Þá Petur talade þessum ordum, fell Heilagur Ande yfer þá alla, sem orded heyrdu.

45. Og þeir trúader, sem af umskurnenne voru, og med Petre höfdu komid, hrædduzt þad, at Heilags Anda giöf være úthellt einnenn yfer heidna menn.

46. Því þeir heyrdu þá túngur tala og vegsama Gud. Þá svarade Petur:

47. Kann nockur at fyrerbióda þeim vatnid, at þesser skírest eige, sem medtekid hafa Heilagann Anda, líka sem ver?

48. Og hann baud at skíra þá í nafne Drottens. Þeir bádu hann þá, at hann være þar nockora daga.

## 11. Capitule.

1. Og sem þad heyrdu postularner, og þeir brædur sem í Judea voru, at heidingar höfdu medtekid einnenn Guds Ord.

2. Og þá Petur kom upp til Jerusalem, tóku þeir at þrátta mót hönum, sem voru af umskurnenne.

3. Og sögdu: Þú geckst inn til þeirra manna sem yferhúd hafa, og matadest med þeim.

4. Enn Petur tók til og sagde þeim frá, eitt efter annad, og sagde:

5. Eg var í borgenne Joppe, á bæn minne, og vard burtrickur, og eg sá eina syn, sem var, eitt ker fór ofann sem einn stór línndúkur, med fiórum hyrningum, ofannláted af himnum, og kom allt inn til mín.

6. Þar í sá eg, og vard var vid; og eg sá ferfætt dyr, iardar og villudyr, og orma, og fugla himins.

7. Eg heyrde eina rödd, sem til mín sagde: statt þú upp Petur, slátra og neyt.

8. Enn eg sagde: ó nei, Herra! Þvíat ecke almennt eda óhreint hefur enn nockurn tíma inn í minn munn gengid.

9. Enn röddenn svarade mer í annat sinn af himne: hvad Gud hreinsade, þad ger þú eigi almennt.

10. Og þetta skede þrisvar, og

þad vard allt uppdregid aftur til himens.

11. Og siá, at jafnsnart stódu þeir menn úte fyrer húsinu, þar eg var inne, sender af Cesarea, til min.

12. Enn andenn sagde mer, at eg skyllde gánga med þeim, og efa eigi: enn þar komu þesser sex brædur med mer, og ver gengum inn í þess manns hús.

13. Hann kunngerde oss hvernenn hann hafde sed engel í sinu húsi standande, sem sagde til hans: send þú út menn til Joppen, og lát kalla til þín Simon, þann kalladur er Petrus.

14. Hann mun segia þer þau Ord, af hverium þú munt hólpenn verda, og allt þitt hús.

15. Enn þá eg tók til at tala, fell Heilagur Ande yfer þá, líka sem yfer oss í fyrsta upphafe.

16. Þá kom mer í hug, þad Ord Drottens, sem hann sagde: Johannes skírde í vatne, enn þer skulud med Heilögum Ande skírder verda.

17. Þvi fyrst Gud hefir gefid þeim eins líkar giafer sem oss, sem trúum á Drottenn JesumChristum, hver var eg þess, at eg mætte þad Gude varna?

18. Þá þeir heyrdu þad þögnudu þeir, vegsömudu Gud, og sögdu: þá hefir Gud einnenn unnt heidingum idrunar til lífsins.

19. Enn þeir sem sundur höfdu dreifst, af þeirre hörmúngu, sem byrtest efter Stephanum, gengu umkring allt til Phenicen, og Cypriam, og Antiochiam, talande ordeð fyrer engum nema Gyðingum einum.

20. Þar voru og nockorer menn medal þeirra, sem voru af Cypria, og Cyrenia, hverer, þá þer gengu inn í Antiochiam, tóku at tala til þeirra Gricka, bodande þeim Evangelium út af Drottne vorum Jesu.

21. Og hönd Drottens var med þeim, og mikel tala tók vid trúnne og snerist til Drottens.

22. Enn þesse ræda um þá, kom til eyrna safnadarens, sem var í Jerusalem, og þeir sendu út Barnabam, at hann genge til Antiochiam.

23. Og sem hann kom þar, og sá Guds nád, vard hann gladur, og red þeim öllum, at þeir skylldu med stadföstu hiarta hiá Gude stadnæmast.

24. Því hann var gódur madur, og fullur Heilags Anda og trúar, og margt fólk jókst þar Drottne.

25. Enn Barnabas fór til Tharsen, at hann frette upp aftur Saulum.

26. Og sem hann hafde funded hann, fylgde hann honum í Antiochiam, og þad skede svo, at þeir voru tilsamans árid allt, hiá þeim söfnude, kenndu þar og mörgu fólke, hvar af læresveinarner kölludust fyrst í Antiochia christner.

27. Enn á þeim dögum kómu spámenn af Jerusalem til Antiochiam.

28. Og einn af þeim stód upp, Agabus at nafne, hann kunngerde fyrer andann, at koma skyllde mikeð húngur yfer alla jardarkrínglunna, og þad skede under Claudio keisara.

29. Enn hver einn af læresveinunum ályktade at senda brædrunum, sem bigggu í Judea, nockora

hiálp, hver efter því sem hann formátte.

30. Hvad þeir gerdu, og sendu þad til oldunganna, fyrer hendur Barnabæ og Sauli.

## 12. Capitule.

1. A þeim tíma lagde Herodes kongungur hendur á nockora af safnadenum, at pína þá

2. Hann let þá drepa Jacob, bródur Johannis, med sverde.

3. Og þá hann sá, at þad þocknadest Gydingum, fór hann áframm og hondlade einnenn Petrum. Og þad voru dagar þess sæta brauds.

4. Og sem hann hafde hann griped, let hann seta hann í Myrkrastofu, og afhendte hann sextan stridsmonnum, at vardveita hann, og hugde efter páskana at frammselia hann fólkenu.

5. Og Petur geymdist at sonnu í myrkrastofu, enn sófnudurinn bad án aflats fyrer honum til Guds.

6. Og þá Herodes villde hann frammleida láta, svaf Petur á þeirre nóttu medal tveggia stridsmanna, bundenn tveimur iarnvidum, enn vardmennerner forvorudu úte fyrer dyrunum myrkrastofunna.

7. Og siá, at engell Drottens kom þángat, og liós skein í húsinu; hann laust á sídu Peturs, uppvakde hann, og sagde: statt þú upp strax! og hleckerner fellu af hans hondum.

8. Engellenn sagde þá til hans: gyrd þig, og tak skó þína á þig, og hann gerde svo; hann sagde til hans: legg þinn kyrtel yfer þig, og fylg mer.

9. Og hann geck út og fylgde honum. Og eige visse hann at slíkt skede hann vissulega fyrer engelinn, helldur meinte hann sig syn siá.

10. Og þeir gengu um hid fyrsta og annad vardhalld, og komu til Járnhlidsins, sem lá til borgarennar, enn þad lauk ser siálft upp. Og þeir stigu út og genau burt eina strætislengd, og strax skildest engellenn vid hann.

11. Og þá Petur kom til siálfsins, sagde hann: nú veit eg fyrer víst, at Drottenn sende engel sinn, og frelsade mig af hende Herodis, og af allre eftervæntan Gydinga lyds.

12. Og þá hann gætte sín, kom hann til húsa Mariu, módur Johannis, þeis sem kalladur var Marcus, hvar marger voru til samans komner, og bádust fyrer.

13. Enn sem Petur laust á dyrahurdena, geck stúlka framm, at heyra til, su Rhode var at nafne.

14. Og þá hún þeckte hliód Peturs, lauk hún eige upp hurdunne, fyrer feigennleika, helldur hlióp hún inn og sagde þeim, at Petur stæde úte fyrer hurdinne.

15. Enn þeir sogdu til hennar: þú ert galenn! hún helt því fastara á at þad være svo: þeir sogdu: þad er hans engell.

16. Enn Petur klappade frammvegis uppá. Og þá þeir luku upp, sáu þeir hann og undrudust.

17. Enn hann bendte þeim med hendenne, at þeir þegdu, og sagde frá, hvernenn Drottenn hefde leidt hann úr myrkrastofunni, og sagde: kunngered þetta Jacobo og brædrunum. Hann geck út þadann, og fór í einn annann stad.

18. Enn þá dagur kom, var eige lítel angurseme á millum stridsmannanna, hvad orded hafde af Petre.

19. Enn þá Herodes leitade hans og fann eigi, let hann vard mennena koma fyrer dóm og skipade at burtleida þá. Fór sidann frá Judea ofan til Cesaream, og þar dvaldest hann.

20. Þvíat hann þeinkte at strida vid þá í Tyro, og Sidon, enn þeir komu med einu samhellde til hans og yfertølndu Blastum, sá var konungsins herbergessveinn, og beiddust fridar, af því þeirra byggdarløg nærdust af konungsins lande.

21. Enn á tilsettum dege klæddest Herodes konunglegum skrúda, settest á dómstól, og gerde eina rædu til þeirra.

22. Enn fólked tók at kalla: Guds rødd er þetta, enn eige manns.

23. Jafnskiótt sló engell Drottins hann, af því hann gaf eige Gude heidurenn, og hann vard etinn af madkum, og gaf upp Andann.

24. Enn ord Drottins tók at vaxa, og margfalldast

25. Enn Barnabas og Saulus komu til Jerusalem aftur, þegar þeir høfdu lokit sinum erendum, og tóku med ser Johannem, þann sem at vidurnefne het Marcus.

## 13. Capitule.

1. Og í þeim søfnude, sem var í Antiochia, voru spámenn og lærefedur, sem var Barnabas, og Simon sem kalladest Svartur, og Lucius hinn syrlendske, og Manahen, sá var samfóstre Herodis fiórdungshøfdinga, og Saulus.

2. Og þá þeir þiónudu Drottne, og føstudu, sagde Heilagur Ande: útveled mer Barnabam, og Saulum, til þess verks, sem eg hefe þá tilkiøred.

3. Þeir føstudu þá, og bádust fyrer, løgdu hendur yfer þá, og letu þá burt fara.

4. Og sem þeir voru útsender af Heiløgum Anda, komu þeir til Seleucia, og þadan sigldu þeir til Cyprus.

5. Og þá þeir komu til Salamin borgar, tóku þeir at predika Guds ord í samkundum Gydinga, enn þeir høfdu Johannem til þenustu.

6. Og sem þeir gengu yfer eyuna, allt inn til Paphos borgar, þar fundu þeir einn fiølkingismann, og falspropheta, hver Gydingur var, hvers nafn at var Bar-Jehu.

7. Sá var hiá Sergio Paulo, landstiórnara, hygnum manne, hann kallade fyrer sig Barnabam og Saulum, og hann girntest at heyra Guds ord.

8. Þá stód þeim mót sá galldramadur Elimas (þvíat svo verdur hans nafn útlagt) og ásette ser at snúa landstiórnaranum frá trúnne.

9. Enn Saulus hver og het Paulus, fullur af Heiløgum Anda, leit á hann og sagde:

10. Og þú Diøfuls sonur, fullur alls táls og flárædis, og óvinur allrar rettvíse, þú lætur eigi af at umsnúa rettum vegum Drottins.

11. Og siá nú at hønd Drottins kemur yfer þig, og þú skallt blindur verda, og siá eige sól

um nockora tíma, og jafnsnart fell á hann dymma og myrkur, geck umkring, og leitade at þeim, sem hann villdu leida.

12. Þá landstiórnarenn sá hvad gerdest, trúde hann, og undradest kenningu Drottins.

13. Eng þá Páll, og þeir sem med hønum voru, sigldu frá Papho, komu þeir til Pergen, í Pamphylialande, enn Johannes skilde vid þá, og fór aftur til Jerusalem.

14. Enn þeir fóru þar þvert yfer frá Pergen, og komu til Antiochia, í Pisidia lande, og gengu í þeirra samkundu á sabbathsdege, og settust nidur.

15. Enn efter løgmalslesturenn, og spámannanna, sendu yfermenn samkundunnar til þeirra, og létu sega: góder brædur, viled þer tala nockud og undervísa fólkenu, þá seged til.

16. Þá stód Páll upp, og bendte med hendenne, og sagde: þer Israels menn, og þer sem óttest Gud, þá heyred.

17. Gud þessa fólks útvalde fedur vora, og hóf upp fólk þetta þá þegar þad var útlendt á Egyptalande, og med háfum armlegg útleidde hann þad þadan.

18. Og nær í fiørutyu ár, umleid hann þeirra sidu í eydemørku.

19 Og afmáde sió þiódir á Canaanslande, og skipte med þeim epter hlutfalle þeirra lande.

20. Efter þad gaf hann þeim dómendur, í þriú hundrud og fimmtyu ár, allt til Samuelis spámans.

21. Efter þad æsktu þeir ser kóngungs, og Gud gaf þeim Saul, son Kis, mann af Benjamins kyne í fiørutyu ár.

22. Og þá hann tók hann í burt, uppvakde hann David til konungs yfer þá, af hverium hann vitnade: eg hefe funded David, son Jesse, mann efter mínu hiarta, hver gera skal allann minn vilia.

23. Af þessa sæde uppvakde Gud Jesum, Israel til lausnara, svo sem hann fyrerhet.

24. Eins og Johannis predikade ádur idranarskírn ølln Israels fólke, ádur hann uppbyriade.

25. Enn þá Johannes hafde fullkomnad sitt skeid, sagde hann: eg em eige hann, hvern þer halldeð mig vera, helldur siáed, at sá kemur efter mig, hvers skóþveinge á hans fótum eg em eige verdugur at leysa.

26. Þer menn, góder brædur, þer børn Abrahams sleckris, og þeir sem ydar á mille óttast Gud, ydur er þetta hiálprædis ord sendt.

27. Þvíat þeir sem búa í Jerusalem, og þeirra høfdingar, med því þeir þecktu hann eige, ne spámanna radder (hverar lesnar verda alla sabbatsdaga) hafa þeir þær med sínu dómsatkvæde uppfyllt.

28. Og þó þeir fundu enga dandasøk med hønum, beiddu þeir af Pilato, at hann villde aflífa hann.

29 Enn sem hann hafde fullkomnad allt, hvad af hønum var skrifad, tóku þeir hann ofan af trenu, og lógdu í eina grøf.

30. Enn Gud uppvakde hann af dauda.

31. Og hann auglystest marga daga fyrer þeim, sem med hønum gengu af Galilea til Jerusalem, hverer eru vottar til fólksins.

32. Og ver bodum ydur þad fyrerheit, sem til fedra vorra er sked.

33. At þad sama hefir Gud uppfyllt oss þeirra børnum, í því hann uppvakde Jesum, svo sem í ødrum psalme skrifad er: þú ert minn sonur, í dag ól eg þig.

34. Enn þad, at hann uppvakde hann af dauda, at hann kæme ei framar til rotnunar, þá sagde hann svo: trúlega skal eg hallda vid ydur þá nád, hver David var losud.

35. Fyrer því seger hann í ødrum stad: þú munt eige leyfa, at þinn heilage skule rotnan siá.

36. Því David, þá hann hafde á sinum tíma þiónad Guds vilia, svo sofnade hann burt, og er lagdur til fedra sinna, og hefir rotnan sed.

37. Ennsá, hvern Gud uppvakde, hefir eige rotnan sed.

38. Fyrer því se ydur vitanlegt, góder brædur, at ydur bodast fyrer þennann syndanna fyrergefuing, og af øllu því, af hveru þer gátud ei retláter orded í Moyses løgmále.

39. Enn hver hann trúer á þennann, sá er retlátur.

40. Því siáed svo til, at eige kome þad yfer ydur, hvad sagt er fyrer spámennena.

41. Siáed þer forsmánarar, undred ydur, og verded at engu, Þvíat eg gere eitt verk, á ydrum tímum, hveru þer trued eigi, og þó nockur talade þar um fyrer ydur.

42. Enn at útgengnum Gydingum af samkundunne, bádu þeir hiner heidnu, at þeir segdu þeim þessi ord, á mille sabbathsdaganna.

43. Og þá samkunduhússins søfnudur skildest at, fylgdu Pále og Barnaba marger Gydingar efter, og gúdrækner menn, sem Judar høfdu gerst, og þeir søgdu þeim, og áminntu þá, at þeir skylldu blifa í Guds nád.

44. A efterkomande sabbathsdege kom til samans nær allur stadur, at heyra Guds ord.

45. Og þá Gydingar sáu fólked, fylltust þeir af hatre, og tóku at mæla gegn því, sem Páll sagde, mótkastande, og hádungar ordum lastande.

46. Enn þeir Páll og Barnabas, søgdu þá skøruglega: þad byriade, at ydur skylde Guds ord fyrst segiast: enn af því þer rekeð þad frá ydur, og hallded ydur siálfa eylífslífs ómaklega, siáed, þá snúum ver oss til heidinna þióda.

47. Þviat svo hefir Drottenn boded oss; eg sette þig heidnum þiódum til lióss, svo at þú sert hiálpráð, allt til jardarennar enda.

48. Og þá hiner heidnu heyrdu þad, glødduſt þeir, og vegsømudu ord Drottens, og svo marger þeirra urdu trúader, sem til eylífslífs voru skickader.

49. Og ord Drottins tók út at berast, um øll herød.

50. Enn Gydingar hvøttu þá upp merkelegar og hæverskar kvinnur, og hina ædstu menn borgarennar, og uppvøkdu svo ofsókn móti Pále og Barnaba og ráku þá burt úr sínum landamerkum.

51. Enn þeir hristu dust fóta sinna á þá, og komu til Jconion.

52. Og lærisveinarner fylltust af fagnade og Heilögum Anda.

## 14. Capitule.

Og þad skede í Iconio, at þeir komu til samans, og predikudu í Gydinga samkundu, svo at mikell manngiölde trúde, bæde af Judum og Griekum.

2. Enn þeir vantrúandu Gydingar uppvöktu, og eitursamar gerdu móte brædrunum, sáler heidinna manna.

3. Svo dvöldu þeir þar um lángann tíma, og kenndu diarflega í Drottne, hver siálfur vitne bar ordum sinnar nádar, og lét tákn og stórmerke ske fyrer þeirra hendur.

4. Enn borgarmúgurinn tvískiptest í sundur, svo at sumer helldu med Gydingum, enn sumer med postulunum.

5. Enn þá gerdest upphlaup af heidingum, og Gydingum, og þeirra yferbodurum, at smána þá, og grióte lemia.

6. Þá fornummu þeir þad, og flydu í þær borger, sem ligga í Lycaonia lande, Lystra, og Derben, og í þeirra umliggande landsálfur.

7. Og predikudu þar Evangelium.

8. Og madur nockur var í Lystra, hann hlaut at sitia, því hann var fótahrumur, og var hálltur frá sinnar módur kvide, sá alldrei hafde enn genged.

9. Hann heyrde Pál mæla, og sem hann leit á hann, og fornemerkte at hann trúde, þad hönum mætte hiálpa, sagde hann med hárre röddu:

10. Statt upp rettur á þínar fætur, og hann spratt upp og geck.

11. Enn þá Lydurenn leid hvad Páll hafde gert, hófu þeir upp hlióð sín, á lycaonisku, og sögdu: Godenn eru mönnum líkordenn, og til vor ofann stigenn.

12. Og Barnabam kolludu þeir Jupiter, enn Pál Mercurium, af því hann frammbar ordid.

13. Enn Jovis prestur, sá sem fyrer borg þeirra var, flutte bæde yxa og kransa fyrer portenn, og villde fórnfæra med fólkenu.

14. Þá þeir postular, Páll og Barnabas, heyrdu þad, sundurrifu þeir sín klæde, stucku út til fólksins, kolludu og sögdu:

15. Þer menn! því gered þer þetta? vid erum og daudleger menn, líka sem þer, og predikum ydur Evangelium, at þer snúest frá þessum hegómlegum hlutum, til lifanda Guds, sá sem gerde himen og jörd, sió og allt hvad í þeim er.

16. Hver um lidnar allder hefir alla heidinga gánga látid þeirra siálfra vegu.

17. Og þó at sönnu hefir hann ei forláted siálfann sig, án vitnisburdar, þar hann veitte oss mikid godt, og gaf oss dögg af himne, og frióssama tíma, uppfyllande vor hiörtu med fædslu og fagnade.

18. Og þá þeir sögdu þetta, gátu þeir þó varla stillt lydenn, svo at þeir fórnudu þeim eigi.

19. Þá komu þar nockorer Gydingar frá Antiochia og Iconio, hverer töldu lydenn í, svo at þeir gryttu Pál, og drógu út af borgenne, meinande hann daudann vera.

20. Enn þá lærisveinarner um-

krúngdu hann, stód hann upp, og geck inn í borgena. Og degenum efter fór hann út med Barnaba til Derben.

21. Og þeir predikudu Evangelium í þeirre borg, og kendu mørgum, og þeir fóru aftur til Lystram, Iconion og Antiochiam.

22. Stirkiande ander læresveinanna, og áminnande þá, at þeir væru stadfaster í trúnne, og, at oss byriar fyrer miklar hrellingar inn at gánga í Guds ríke.

23. Og þeir sticku du þeim olldungana i serhvera samkundu, bádust fyrer, og føstudu, og fólu þá sian þeim drottne á hendur, á hvern þeir trúdu.

24. Og þeir ferdudust um Pisidiam, og komu í Pamphyliam.

25. Og tøludu ordid í Pergen, og fóru ofann í Attaliam.

26. Padann sigldu þeir til Antiochiam, hvadann þeir voru fyrer Guds nád tilfenger, í þad verk, hvert þeir høfdu fullkomnad.

27. Og sem þeir voru komner þángat, samansøfnudu þeir søfnudenum, og tøldu framm, hvad mikid Gud hafde gert þeim, og hvernen hann hefde dyrum trúarennar upplokid fyrer heidingum.

28. Og þeir dvøldu þar eige skamma stund hiá læresveinunum.

## 15. Capitule.

1. Og nockorer komu nidur frá Iudea, og kendu brædrunum: nema ef þer láted umskera ydur efter sidvenin Mosis, þá kunned þer eigi sáluhólpner at verda.

2. Sem þar nú byriadest eitt upphlaup, og Páll og Barnabas høfdu ecke lítid þrætumál vid þá, þá sticku du þeir því svo, at Páll og Barnabas, og nockorer adrer af þeim, færu upp til postulanna, og olldunganna í Jerusalem, um þessa spurning.

3 Og þeir voru af safnadenum á leid leidder, og gengu gegnum Phenicen og Samariam, segiande heidinna þióda umvendan, og gerdu ollum brædrum mikenn sognud.

4. Enn þá þeir komu til Jerusalem, medtókust þeir vel af søfnudenum og postulunum, og svo af olldungunum, og þeir kunngerdu þeim frá, hversu mikid Gud hafde gert med þeim.

5. Pá risu upp nockorer út af Phariseanna selskap, þeir vid trú høfdu tekid, segande: þad byriar at umskera þá, og bióda þeim at hallda Moysis løgmál.

6. Enn postularner og olldungarner komu til samans, at þeir litu á þetta mál.

7. Og þá mikel þrættan hafde vered, stód Petur upp, og sagde til þeirra: þer menn og góder brædur, þer vitid, at Gud hefir útvalid vor á mille, lángt fyrer þennann tíma, at heidner menn skylldu heyra og trúa fyrer minn munn, Gudsspiallsins orde.

8. Og Gud, sá hiörtun þecker, bar vitnisburd um þá, gefande þeim Heilagann Anda, svo sem oss.

9. Og gerde enganu greinarmun á mille vor og þeirra, hreinsande med trúnne þeirra hiörtu.

10. Fyrer hvad freistid þer nú þá Guds, at leggia ok yfer læresveinanna háls, hvert eigi gátu bored, hverke ver ne fedurvorer?

11. Helldur trúum ver at verda

sáluhólpner fyrer náð Drottens vors Jesu Christi, með sama hætte og þeir.

12. Þá þagde allur múgurenn, og hlyddu þeim Barnaba og Pále, þá þeir sögðu frá, hvad stór teikn og dásemdar verk Gud hafde gert medal heidinna þióda fyrer þá.

13. Efter þad þeir þögnudu, svarade Jacob og sagde: þer menn, góder brædur, heyred mig.

14. Simon sagde framm med hverum hætte Gud hafde í fyrstu vitiat, og medtekeð ser fólk út af heidnum þióðum, til síns nafns.

15. Og þessu samhlióda svámanna ordenn, svo sem skrifad er:

16. Efter þetta mun eg aptur koma, og uppbyggia tiallddbúd Davids, hver fallenn er, og eg skal þad, sem á henne er sliteð, endurbyggia, og hana uppretta aftur.

17. Svo at þeir menn, sem efterblífa, skulu leita Drottens, og þar til allar heidnar þióder, yfer hverar mitt nafn er nefndt, seger Drotten, sá sem þetta gerer allt.

18. Gude eru öll sín verk kunnug, frá veralldarennar uppháfe.

19. Fyrer því úrskurda eg, at gera eige þvíngan, þeim sem snúast frá heidne til Guds.

20 Helldur skrifum þeim til, at þeir hallde sig frá óhreinleik skúrgodadyrkunar, og frá frillulífnade, og frá kösnudu, og frá blóde.

21. Þvíat Moyses hefir í lángann tíma haft þá í öllum borgum, sem hann predika, og hann verdur lesenn hvern sabbathsdag í samkunduhúsum.

22. Þá leitst þad postulunum og ölldungunum, med öllum söfnudenum, at þeir útveldu af þeim menn, og sendu til Antiochiam med Pále og Barnaba, sem var, Judas hver kalladur var Barsabas, og Silas, hverer læresedur voru medal brædranna.

23. Og þeir fengu þeim þess háttar rit í þeirra hendur: ver postular, öllungar og brædur, óskum velferd þeim brædrum, af heidingum, sem eru í Antiochia, Syria og Cilicia.

24. Med því at ver höfum heyrt, at nockrer af oss eru útgenguer, sem hafa fært ydur í villu med lærdome, og efasamar hafa gert ydrar sáler, bodande ydur at umskerast, og lögmálid at hallda, hverum ver höfum eige slíkt boded.

25. Því hefir oss litest med eindrægne samannkomnum, at útvelia menn og senda til ydar med vorum elskulega Barnaba og Pále.

26. Hverer menn út hafa sett sínar sáler fyrer nafn Drottins vors Jesu Christi

27. Fyrer því sendum ver Judam og Silam, hverer eiga at sega ydur með ordum hid sama.

28. Þvíat þad þocknast Heilögum Anda og oss, at leggia á ydur eingen meire þyngsl fyrer utann þessa þarslega hlute.

29. At þer hallded ydur frá því sem skúrgodum er fórnad, og blóde, og frá kösnudu, og frá frillulísse, frá hveru ef þer hallded ydur, þá gered þer rett. Lifed sæler.

30. Þá þesser voru af stad sender, koma þeir til Antiochiam og

samannsøfnudu safnadenum og sendu þeim brefid.

31. Þá þeir lásu það, urdu þeir af þeirre huggan glader.

32. Enn Judas og Silas hverer og svo spámenn voru, áminntu bræðurnar med miklum fortølum, og styrktu þá.

33. Og þá þeir høfdu dvaled þar um stundar saker, urdu þeir sídann med fride af brædrunum sender til postulanna.

34. Enn Silas leitst at vera þar.

35. Og Páll og Barnabas dvøldust í Antiochia, kenndu og predikudu, samt ødrum mørgum fleyrum, ord Drottens.

36. Enn epter nockora daga, sagde Páll til Barnaba: førum vid aftur, og vitinum brædra vorra um allar borger í hverum vid høfum bodad ord Drottens, hvernen þeir haga ser.

37. Enn Barnabas gaf til ráð, at þeir tæku med ser Johannem, sá sem auknefndest Marcus.

38. Enn Pále þótte tilheyrelegt, at þann, sem frá þeim hefde snúed úr Pamphylia, og geck eige med þeim í verk, skylldu þeir eige med ser taka.

39. Og svo hardt sunderþycke vard þeirra á mille, at hver skilde vid annann, og Barnabas tók Marcum til sín, og siglde til Cyprum.

40. Enn Páll kiøre ser Silam, og ferdadest í burt, og var af brædrunum Guds nád bífaladur.

41. Og hann ferdadest gegnum Syriam og Ciliciam styrkiande søfnudena.

## 16. Capitule.

1. Þá kom hann til Derben og Lystran, og siá, at einn læresveirn var þar, Timótheus at nafne, sonur einnrar trúadrar Gydinga konu, enn at faderne Griskur.

2. Þessum báru þeir brædurner godt vitne, sem voru í Lystra og Iconia.

3. Þennann villde Páll med ser fara láta, tók at ser og umskar hann, fyrer saker þeirra Gydinga, sem voru í þeim stødum, þvíat þeir vissu aller, at hans fader var Griskur.

4. Enn þar þeir fóru um borger, budu þeir í þeim at vardveita þær setningar, sem ályctadar høfdu verid af postulunum, og olldungunum í Jerusalem.

5. Og svo styrktust søfnuderner í trúnne, og fiølgudust daglega at tølu.

6. Og þá þeir ferdudust gegnum Phrygiam, og landid Galatiam, var þeim forbodid af Heiløgum Anda, at tala orded í Asia.

7. Enn sem þeir komu til Mysiam freistudu þeir at ferdast gegnum Bithyniam, og Andenn lofade þeim það eige.

8. Enn þá þeir gengu framm hiá Mysiam, fóru þeir ofann til Troaden.

9. Og Paulo var ein sión opennberud um nóttena, það var madur nockur af Macedonia, stód og bad hann, og sagde: far ofann í Macedoniam, og hiálpa oss.

10. Enn sem hann hafde siónena sed, huxudum ver strax at reisa til Macedoniam, fullvisser í því,

at Drottenn kalladе oss þangat at predika þeim Evangelium.

11. Þá reistum ver frá Troado, og komum á rettu skeide til Samothraciam, annars dags til Neapolin.

12. Og þadann til Philippis, sú er høfud borg í Macedonia, byggd af Romverum, og ver dvøldum í sømu borg nockora daga.

13. Og á sabbathsdegenum gengum ver af borgenne, at því vatne hvar þeir vløgudu at biðiast fyrer, settum oss, og tøludum til þeirra kvenna, sem þar komu til samans.

14. Og kona nockur Gudrækenn, Lydia at nafne, hver purpura selldе, verande útaf Thyatiris borg, heyrde til, hverrar hiarta Drottenn opnade, svo at hún gætte at því, hvad af Pále sagdest.

15. Enn sem hún og hennar hús var skírt, beidde hún oss og sagde: ef þer hallded migl trúada vera á Drottenn, þá gánged inn í mitt hús, og blífed þar, og hún neydde oss þar til.

16. Enn þad skede, þá ver gengum til Bænar, at stúlka nockur, sú sem hafde sannsagnar Anda, hlióp móte oss; hun gerde sínum lánardrottnum mikenn ábata med sínum spádome.

17. Þesse sama fylgde Pále og oss allstadar efter, kallade og sagde: þesser menn eru þiónar Guds hins hædsta, þeir sem boda ydur hiálpræðis gøtu.

18. Þetta gerde hún um marga daga. Enn þad gramdest Pále: því snerest hann vid og sagde ti Andans: eg byd þer í nafne Jesu Christi, at þú farer út fra henne, og hann fór út á samre stundu.

19. Enn sem Drottnar hennar sán þad, at von síns ábata var úte, gripu þeir Pál og Silam, og leiddu þá á torg, til høfdinganna.

20. Og færdu þá til høfudsmannanna, og søgdu: þesser menn særa stad vorn í villu, og eru Gydingar.

21. Og boda þá venin, sem oss hæfer eigi at medtaka, ne at gera, med því ver erum romversker.

22. Og fólked æstest upp móte þeim, og høfudsmennerner letu þá af sérum færa, og budu at strykia þá.

23. Og þá þeir høfdu veitt þeim stóra húdstroku, snørudu þeir þeim í myrkrastofu, og budu myrkrastofuverdenum at geyma þá grandvarlega.

24. Og hann tók slíkt bod at ser, og kastade þeim í þad innsta vardhalld, og sette þeirra fætur í Stock.

25. Enn um midnætte bádust þeir fyrer Páll og Silas, og lofudu Gud, og þeir faungadu heyrdu til þeirra.

26. Enn skiótlega vard mikell iardskiálfte, svo at hrærdest grundvøllur myrkrastofunnar, og iafnsnart opnudust allar dyr, og allra þeirra fiøtrar uppleystust.

27. Enn sem myrkrastofuvørdurenn vaknade, og sá myrkrastofudyrnar opnar, dró hann út sverd, og villde fyrerfará siálfum ser, meinande bandingana burt flyda.

28. Enn Páll kallade hárre røddu, og sagde: ger þer ecke vondt, þvíat ver erum her aller.

29. Enn hann heimte lióss, gek

inn, og af ótta slegenn, fell hann Pále og Sila til fóta.

30. Leidande þá út og sagde: Herrar miner! hvad byriar mer at gera, svo at eg verde sáluhólpenn?

31. Enn þeir sögdu: trú þú á Drottenn Jesum Christum, svo verdur þú hólpenn og þitt hús.

32. Og þeir sögdu honum ord Drottens, og öllum þeim sem í hans húsi voru.

33. Hann tók þá at ser þá sömu stund nætur, og þerrde benjar þeirra, hann let þá og skíra iafusnart siálfann sig og allt sitt hús.

34. Og þá leidde hann þá í sitt hús, reisde upp bord fyrer þeim, og hann gladdest med öllu sínu húsi, at hann var á Gud trúadur ordinn.

35. Og þá dagade, sendu höfudsmenn þenara stadarins þángat, og sögdu: látþú þessa menn lausa.

36. Enn myrkrastofuvördurenn kunngerde Pále þessa rædu: höfudsmennerner sendu hingat, at þer skylldud lauser látast, þvi gánged nú út og fared í fride.

37. Enn Páll sagde til þeirraa þeir hafa opinnberlega án laga og doms látid húdstrýkia oss rómverska menn, og í myrkrastofu kastad, og skylldu þeir nú reka oss út heimuglega? ecki svo, helldur láted þá siálfa koma og leida oss út.

38. Enn þesse ord kunngerdu stadarens þenarar höfudsmönnunum, og þá þeir heyrdu þad, at þeir voru romverser, ottudust þeir.

39. Komu sídann, beiddu þá og útleiddu, og bádu þá at þeir villdu fara burt úr borgenne.

40. Þeir gengu þá af myrkrastofunne, og komu til Lydia. Og þá þeir höfdu brædurnar sed og hugsvalad þeim, fóru þeir burt.

## 17. Capitule.

1. Enn þá þeir fóru um Amphipolin og Appoloniam, komu þeir til Thessalonicam, þar sem var eitt Gydinga samkunduhús.

2. Enn Páll geck inn efter venju sinne til þeirra, og sagde þeim um þriá sabbathsdaga úr ritningunum.

3. Opnade þær fyrer þeim, og lagde þad framm fyrer þá, at Christus hefde átt at lída, og af dauda upp at rísa, og at þesse Jesus, hvern eg boda ydur sagde, hann er Christur.

4. Og nockorer af þeim fellu til hans, og samlögndu sig Pále og Sila, og mikell fiölde gudligra Grickia, þar med hinar ædstu kvinnur, eige allfáar.

5. Enn þeir hardsvírudu Gydingar fylltust vandlætingar, og fengu med ser nockora illþydis almúgamenn, eg sem þeir höfdu dreged flock samann, gerdu þeir upphlaup í borgenni, og gengu fyrer hús Jasonis, og sóktu epter at leida þá framm fyrer alþydufólked.

6. Enn þá þeir fundu þá eige, drógu þeir Jasón og nockora brædur fyrer höfdinga borgarennar, og kölludu: þeir sem uppreistann gera allann heiminn allt umkring, eru her komner.

7. Hvera Jason hyser, og þesser aller gera móte keisarans bode,

segiande annann konong vera, sem er Jesus.

8. Svo uppæstu þeir lydenn og hofdingia borgarennar, þá þeir slíkt heyrdu.

9. Og þá þeir høfdu fullt andsvar fenged af Jasone, og þeim ødrum, letu þeir þá lausa.

10. Enn bræburner letu Pál og Silam burt fara um nóit til Berrhoen, og þá þeir komu þar, gengu þeir inn í Gydinga samkunduhús.

11. Því þeir voru hiner edalbornustu á medal þeirra, sem voru í Thessalonica, hverer orded medtóku miøg góðvilnglega, rannsakande daglega ritningarner, hvert þad være svo.

12. Og marger af þeim gerdust trúader, og einnenn ærlegar kvinnur Griskar, og eige allfáer karlmenn.

13. Enn þá þad fengu at vita þeir Gydingar, sem voru af Thessalonica, at Guds ord voru bodud af Påle í Berrhoe, komu þeir og æstu einnenn þar lydenn.

14. Enn iafnsnart burt sendu bræburner Pál, at hann genge allt til siáfar, enn Silas og Timotheus urdu þar efter

15. Og þeir sem leiddu Pál á veg, fylgdu hønum allt til Athenu, og sem þeir fengu þá bifaling af hønum til Silam og Timotheum, at þeir kæmu sem snarast til hans, fóru þeir burt.

16. Enn á medan Páll beid þeirra í Athenu, gramdest han Ande med siálfum hønum, þá hann sá borgena svo miøg hneigda til skúrgodadyrdkunar.

17. Og hann talade hvern dag vid Gydinga og gudrækna menn í samkunduhúsum á torgenn, og til þeirra manna, sem helldu sig þángat.

18. Enn nockorer Epicurei, og Stoici, veralldleger spekingar, þráitudu vid hann, og sumer søgdu: hvad vill þesse ordsnápur nu sega? enn adrer søgdu: þad synest, sem hann vili nyrra Guda bodare vera, fyrer því hann hafde bodad þeim evangelium af Jesu, og af upprisunne.

19. Og þeir tóku hann, og leiddu á dømstolenn, segande: megum ver ecke fá at vita, hver þesse nya kenning er, hvera þu kenner?

20. Þvíat nockud nytt stitur þu fyrer vor eyru, fyrer því villdum ver vita, hvad þad være.

21. Enn aller Athenu borgarmenn, og svo útlendingar og gester, stundudu ecke annad, nema at segia eda at heyra nockud nytt.

22. Þá stód Páll midt á dómstolunum og sagde: þer menn Athenuborgar, eg se at þer erud í øllum hlutum ofmiøg vantrúader.

23. Eg hefe genged her um, og sed ydra Gudsþiónustu, eg fann og alltare, á hvern var áskrifad: þeim ókunna Gude. Fyrer því boda eg ydur þann sama, hverum þer óvitande Guds þiónustu gered.

24 Sá Gud sem gerde heimenn, og allt hvad í hønum er, fyrer því, at hann er Drottenn himens og iardar.

25. Þá byr hann eige í musterum, þeim sem med høndum eru smídud, og eige verdur hønum þiónad af manna høndum, svo sem hann hefde nockurs þørf, med því hann gefur allstadar øllum líf og anda.

26. Og hann hefir þad gert, at allar mannanna ættkvísler búa

á jørdunne af einu blóde, og hann sette tíma og tak mørk, sem voru ádur fyrerſed hvad vídt og lángt þeir ſkyldu búa.

27. Svo at þeir ſkylldu leita Drottens, ef verda kynne, at þeir mætta á hønum þreiſa, og hann finna, þó at hann ſe at ſønnu eigi lángt frá einum ſerhverum vorra.

28. Þvíat ver lifum, hrærumſt, og erum í hønum, ſvo ſem nockar ſkálld hiá ydur hafa ſagt: ver erum af hans ætt.

29 Nú med því ver erum Guds ætt, ſkulum ver eigi meina Guddómenn líkann vera mindum af Gulle, Silfre, eda ſteinum, ſem gerdar eru fyrer mannlega þánka.

30. Og at ſønnu hefir Gud lided tíma óvitſkunnar; enn nú bydur hann øllum mønnum, í øllum endemerkum, at gera yferbót.

31. Fyrer því hann hefir dag tilſett, á hverum hann vill dæma alla jardarkringluna med rettvíſe, fyrer einn mann, fyrer hver hann hefir þad ályktad, trú at veita øllum, efter at hann uppvakdi hann af dauda.

32. Enn þá þeir heyrdu af upprisu framlidinna, hæddu ſumer at því, einn ſumer ſøgdu: ver ſkulum heyra þig framar um þetta.

33. Svo geck Páll frá þeim.

34. Og nockorer menn helldu med hønum, og urdu trúader, medal hverra var Dionyſius einn af rádenu, og kona, Damaris at nafne, og adrer med þeim.

## 18. Capitule.

1. Enn efter þad fór Páll úr Athenu, og kom til Corinthum.

2. Og fann einn Gyding, Aqvilam at nafne, fæddann í Pontus, ſá ſem nylega var komenn af Vallande, med ſinne húsfru Priſcilla, af því at keiſare Claudius hafde boded øllum Gydingum at rýma burt úr Rom.

3. Til þeſs hins ſama geck hann inn. Og med því at þeir voru eins handverks menn, var hann hiá þeim, og erfidade, enn handverkit var tialldvefnadur.

4. Og alla ſabbathsdaga kennde hann í ſamkunduhúſinu, og talade bæde fyrer Gydingum, og einnenn líka fyrer Grickum.

5. Enn þá Silas og Timotheus komu af Macedonia, þrengde andenn Páli til at vitna fyrer Gydingum, at Jeſus være Chriſtus.

6. Enn ſem þeir ſtódu á móte því, og toludu hádúngar ord, hriſte hann ſin føt, og ſagde til þeirra: ydvart blód ſe yfer ydru høfde, eg em hreinn, og geng hedan efter til heidinga.

7. Og hann veik þadann, og geck inn í hús nockurs þeſs, ſem Juſtus var at nafne. Hann var gudhraddur; hans hús var og næſta ſamkunduhúſinu.

8 Enn Criſpus, ſá var foringe ſamkunduhúſſens, trúde á Drottenn med øllu ſínu húſi, og marger Corinthumenn, þeir ſem til heyrdu, urdu trúader, og letu ſkíra ſig.

9. Drottenn ſagde fyrer ſyn um nótt til Páls: óttaſt ecke, helldur tala þú og þeig eige.

10. Því eg em med þer, og eingenn ſkal voga at gera þer ſkada, þvíat eg á miked fólk í þeſſare borg.

11. Enn hann ſat þar áred

umkring, og sex mánude, og kennde Guds ord.

12. Enn sem Gallion var landstiórnare í Achaia, settu Gydingar sig med einn samhellde á móte Pále, og leiddu hann fyrer dómstólenn.

13. Og sögdu: þesse rædur mönnum at dyrka Gud móte lögmalenn.

14. Enn þá Páll bió sig til at upplúka munnenn, sagde Gallion til Gydinga: Judar míner, ef þad være um nockur rángindе eda ókynne, þá bære mer at heyra ydur.

15. Enn med því þad eru spurningar, um lærdóm og ord, og lögmál, ydar millum, meged þer sialfer til siá, því at eg hyggst eige dómare vera þar yfer.

16. Og rak þá frá dómstólnum.

17. Þá gripu aller Gricker Sosthenem, samkundunnar höfdinga, og slóu hann fyrer domstólnum, enn Gallion gaf sig þar eige at.

18. Páll dvaldest þar enn nú lenge. Þar efter skildest hann vid brædurnar, og villde sigla til Syriam, og Priscilla og Aqvila med hönum. Þá hann hafde rakad höfud sitt í Kenchrea, því at hann hafde heit á hende.

19. Og hann kom til Ephesum, og þar let hann þau efter, enn hann geck inn í samkunduna, og talade vid Gydinga.

20. Enn þeir bádu hann, at hann blife þar enn lengre tíma hiá þeim.

21. Enn hann samsinnte því eige, helldur skildest hann vid þá og sagde: mer byriar med öllu þessa hátid, sem til stendur, at hallda til Jerusalem, ef Gud vill, skal eg til ydar koma, og hann fór frá Ephesus.

22. Og kom til Cæsarea, geck upp og heilsade söfnudenum, og fór ofann til Antiochiam.

23. Og dvaldest þar nockora stund, fór burt sídann, og geck hvad efter annad gegnum allt þad Galatiska land, og í Phrygiam, styrkiande alla læresveinana.

24. Þá kom þar til Ephesus Gydingur nockur, Apollo at nafne, fæddur í Alexandria, mælskumadur, og mátugur í ritningum.

25. Þesse var menntur í vege drottins, og talade med glóande Anda, og kennde allkappsamlega um Drottenn, vitande einasta af skírn Johannis.

26. Þesse tók diarflega at predika í samkundunne. Enn þá Aqvila og Priscilla heyrdu hann, tóku þau hann at ser, og lögdu enn innelegar út fyrer hönum Guds veg.

27. Og þá hann villde reisa til Achaiam skrifudu brædurner og redu læresveinunum, at þeir medtæku hann: og sem hann var þar komenn, hiálpade hann mörgum, þeim sem trúader voru ordner fyrer nádena.

28. Því hann yfervann Gydinga mektuglega, bevísiande opennberlega, fyrer ritningarnar, at Jesus være Christus.

## 19. Capitule.

1. Og þad skede, þá Apollo var í Corintho, at Páll geck þá um upplönd, og kom til Ephesum, og fann nockora læresveina.

2. Og sagde til þeirra: hafed þer nockud medteked Heilagann anda, þá þer urdud trúader?

enn þeir sǫgdu til hans: ver høf-
um enn alldrei heyrt at Heilagur
Ande være til.
3. Hann sagde til þeirra: uppá
hvad erud þer þá skírder? enn
þeir sǫgdu: uppá skírn Johan-
nis.
4. Páll sagde: Johannes skírd-
de at sǫnnu med idrunarskírn,
og sagde fólkenu, at þeir skylldu
trúa á þann, sem efter hann
munde koma, þad er, á Jesum
Christum.
5. Þá þeir heyrdu þad, letu þeir
skíra sig í nafne Drottins vors
Jesu.
6. Og þá Páll hafde haft hend-
ur yfer þeim, kom Heilagur Ande
yfer þá, og þeir tǫludu túngur,
og spádu.
7. Enn þeir menn voru alls nær
tólf.
8. Hann geck inn í samkundu-
húsid, og predikade diarflega, um
þriá mánude, kennde og undervísade
af Guds ríke.
9. Enn þá þeir voru nockorer,
sem forherdter voru, og eigi trú-
du, talande illa um þetta efne
fyrer alþýdunne, veik hann frá
þeim, og adskilde læresveinana,
daglega talande í skóla þess manns,
sem Tyrannus het.
10. Og þad varade tvo ár,
svo at þeir aller, sem binggu í
Asia, heyrdu ord Drottens vors
Jesu, bæde Gydingar og Grecker.
11. Og Gud gerde eigi litil verk
fyrer hendur Páls.
12. Svo at þeir tóku sveitaklæ-
de og kraga af hans hǫrunde, og
helldu þeim yfer siúka, at kránk-
dæmen hvurfu af þeim, og illsku
andar útfóru af þeim.
13. Enn nockorer freistudu útaf
umhleypings Judum, særinga-
menn, at kalla á nafn Drottins
Jesu, yfer þeim sem illskuanda
hǫfdu med ser, og sǫgdu: ver
særum ydur fyrer Jesum, þann
Páll predikar.
14. Enn þesser voru sio, sem
þetta frǫmdu, synir þess Gyd-
ings, og prestahǫfdinga, sem Skeva
het.
15. Enn illskuandenn svarade
og sagde: Jesum þecke eg, og
Pál veit eg, enn hverer erud
þer?
16. Og sá madur, í hverium
illskuandenn var, stock uppá
þá, og vard þeim yflugre, og var-
pade þeim under sig, svo at þeir
flydu nakter og sárer úr því
sama húsi.
17. Og þetta var ǫllum kunn-
ugt, sem binggu í Ephefo, bæde
Gydingum og Greckum. Og yfer
þá alla sló otta, og nafn Drott-
ins vors Jesu var háleitlega lofad.
18. Þar komu og marger,
sem trúader voru ordner, vidur-
kenndu og kunngerdu, hvad þeir
hefdu áunned.
19. Og marger af þeim, sem
forneskiu lister hǫfdu framed, báru
bækurnar at framm, og brenndu
þær opinnberlega: og at samann-
reiknudu þeirra verde, fundu þeir
þess fiár fimmtíge þusund silfur-
peninga.
20. Svo ǫfluglega vox ord
Drottens og feck framgáng.
21. Nú sem þetta var útgert,
sette Páll ser í anda, at ferdast
um Macedoniam og Achaiam, og
at ferdast til Jerusalem, og sag-
de: efter þad eg hefe verid þar,
byriar mer at siá Romaborg.
22. Og hann sende tvo af þeim
sem hǫnum þiónudu, Timotheum
og Erastum, til Macedoniam,

enn hann taſde ſiálfur um ſtundar ſaker í Aſia.

23. Enn í þann tíma hóffſt eige lítill uppbláſtur af þeſſum lærdóme.

24 Þvíat nockur ſilfurſmidur, Demetrius at nafne, hafandi í ſmídum minder Dianæ muſteris gerdar af ſilfre, hverar afrekúdu ſlíkum ſmidum eigi lítenn ábata.

25. Hann ſamanukallade þá, ſem þeſs háttar verkmenn voru, og ſagde: góder menn, þer vitid at ver høfum mikenn gróda af þeſſare idiu.

26. Og þer ſiáed og heyred, iegi alleinaſta í Epheſo, helldur og nærſta um alla Aſiam, at þeſſe Páll umhverfer miklu fólke, teliande um fyrer því, og ſeger, at þar ſen enger guder, ſem med høndum verda gerder.

27. Enn þetta vill eige einaſta gera vort handverk óduganlegt, helldur mun muſtere hinnar miklu gydiu Dianu einſkis verda virdt, þar til mun hennar tign at engu verda, hverre þó øll Aſia og himskringlan veiter gudlega þiónuſtu.

28. Sem þeir heyrdu þad, fylltuſt þeir reide, æptu upp, og ſøgdu: Diana þeirra í Epheſo er mikel.

29. Og øll borgenn fyllteſt af hárepſte, og þeir gerdu med einu hugarfare áhlaup til torgſins, gripu þá Gajum og Ariſtarchum af Macedonia, lagsmenn Páls.

30 Páll villde þá gánga inn at fólkenu, enn læreſveinarner leyfdu hønum þad eige.

31. Og nockorer yfermenn úr Aſia, þeir Páls góder viner voru, ſendu til hans, og bádu hann, at hann gæfe ſig eige framm á torged.

32. Sumer kølludu ſvo, enn adrer ødruvís, þvíat alþydann var vill ordenn, og fleſter viſſu eigi af hvern efne þeir voru tilſamans komner.

33. Enn ſumer af fólkenu drógu framm Alexandrum, þeim ſem Gydingar frammyttu, enn Alexander bendte hendenne ſer til hlióds, viliande forſvara ſig fyrer fólkenu.

34. Og þá þeir formerktu, at hann var Gydingur, hóffſt upp ein rødd af øllum, og þeir hrópudu nær tvær ſtunder: Diana þeirra í Epheſo er mikel.

35. Og ſem ſkrifari ſtadſins fekk ſtødvad fólked, ſagde hann: þer menn í Epheſo, hver er ſá mannaer eigi veit, at borgenn Epheſus veite Vardhald hinne miklu Gydiu Dianu, og því himneſka bíæti.

36. Nú, med því at þetta er ómótmælanlegt, þá byriar ydur ſpøkum at vera, og ecke af brádrædi at gera.

37. Þer hafed nú þeſſa menn híngat dreged, ſem hverke eru ræningar kyrkna, ne hádsmenn ydrar Gydiu.

38. Enn hafe Demetrius, og þeir ſem med honum ſlíka íþrót idka, kærumál vid nockurn, þá gereſt þar dómur um, og þar eru landſtiórnarar; láted þá áklaga hvern annann innbyrdis.

39. Enn ef þer leitid nockud efter um adra hlúte, þá láted þad frammkvæmaſt á einne løgligre ſteſnu.

40. Því ver ſtøndum í háſka, at ver megum klagader verda fyrer þeſſa dags upphlaup, med

hverre ver kunnum oss at aíſaka. Og þá hann ha'de þetta ſagt, let hann almúgann burt fara.

## 20. Capitule.

1. Enn efter þad þá þeſſu upphlaupe linte, kallade Páll læreſveinana til ſín, og bleſſade þá, og geck burt þadann, at hann ferdadeſt til Macedoniam.

2. Enn þá hann hafde ferdaſt gegnum þad ſama land, og þeim áminning veitt med mörgum ordum, kom hann til Gricklands.

3. Og tafde þar þriá mánude Enn þa honum voru umſat gerd af Gydingum, þá hann villde ferdaſt í Syrlam, vard hann þeſs ſinnis, at ſnúa aftur um Macedoniam.

4. Og þeſſer fóru med honum, allt til Aſiam, Sopater af Berrhoe: enn af Theſſalonica, Ariſtarchus og Secundus, og Gajus af Derben, og Timotheus; enn af Aſia, Tychicus og Trophimus.

5 Þeſſer gengu undann, og bidu vor í Troade.

6. Enn ver ſigldum efter páſkana frá Philippis, allt til hins fimmta dags. og komum til þeirra í Troade, og dvöldum har í ſiö daga.

7. Enn einn fyrſta dag vikn, þá læ'eſveinarner voru til ſamans komner, brand at brióta, predikade Páll fyrer þeim; því annars dags villde hann ferdaſt, og teygde ræduna allt til midrar nætur.

8. Og í þeim loptſal voru mörg liós, ſem þeir voru ſamankomner.

9. Og nockurt ungmenne Eutychus at nafne, ſat í vindaugann, og fell í diúpann ſvefn, þá Páll rædde ſvo lenge, og vard af ſvefne nidur dregenn, og hrapade ofan úr hinum þridia loptſal, og var daudur upptekenn.

10. Enn þá Páll geck ofann, lagde hann ſig framm yfer hann, og hellt um hann, og ſagde: gered engann hávada, þvíat hans önd er med honum.

11. Hann geck þá upp, braut braudid, og bergde, og talade margt vid þá, allt til þeſs dagu rrann, og ſvo ferdadeſt hann.

12. Enn þeir ſóktu ſveinenn lifande, og þeir hugſvöluduſt vid þad eige alllítid.

13. Og ver fórum á ſkipe undann, og ſóktum til Aſſon, þar villdum ver hafa innteked Pál til vor, því hann hafde ſvo áſett, at hann villde ſiálfur fótgángande fara.

14. Enn ſem hann kom til Aſſon, tókum ver hann til vor, og komum til Mitylene.

15. Þadann ſigldum ver, og komum annars dags gegnt Chio, og degenum efter tókum ver höfn vid Samon, og dvöldum í Trogilio, og næſta dag efter komum ver til Miletus.

16. Þvíat Páll hafde ályktad at ſigla fram hiá Epheſo, ſvo at hann hefde enga dvöl í Aſia, af því hann flytte ſer, at hann villde vera í Jeruſalem á hvítaſunnudege, ef honum være þad mögulegt.

17. Frá Mileto ſende hann til Epheſus, og let kalla á hina elldſtu af ſafnadenum.

18. Og þá þeir komu til hans, ſagde hann til þeirra: þer vitid, at frá þeim fyrſta dege ſem eg

kom í Asiam, hversu eg hefe um alla tíma hiá ydur verid.

19. Og Drottne þiónad, med ællu lítelæte, og med miklu tára falle og freistingum, hverar mer hafa hlotnast af Gydingum, sem stunduðu efter minne fordiærfun.

20. Og hvernenn eg leynde þvi engu, sem ydur var nytsamlegt, svo eg hafe þad eige kunngert ydur, og kennt ydur opinberlega, og einslega.

21. Og hete vitnad bæde Gydingum og Grickum, idran til Guds, og trú á Drottenn vorn Jesum.

22. Og nú siáed, eg sem bundenn em í anda, at ferdast til Jerusalem, veit eige hvad þar mun yfer mig koma.

23. Nema þad sem Heilagur Ande vitnar um allar borger, segande at fiætur og harmkvæle munu mín bída þar.

24. Enn eg gef því enganngaum, og helld og eige siálfur mitt líf dyrmætt, svo at eg fullkomne mitt hlaup med fagnade, og þad embætte sem eg hefe meteked af Herranum Jesu, at vitna evangelium um Guds nád.

25. Og nú siáed, at nú veit eg, at þer munud eigi siá mitt andlit framarmeir, þer, medal hverra eg hefi ferdast, og predikad Guds ríke.

26. Fyrer því vitna eg fyrer ydur á þessum dege, at eg em hreinn af allra blóde.

27. Þvíat eg hefe ecke dulid fyrer ydur, at eg hafe e ge kunngert ydur allt Guds ráð.

28. Af því hafid gát á siálfum ydur, og á allre hiordenne, medal hverra Heilagur Ande sette ydur til biskupa, at fæda søfnud Guds, hvern hann hefir útvegad med sínu egenn blóde.

29. Þvíat þad veit eg, at efter minn afgáng, munu inngánga medal ydar ólmer vargar, þeir sem eigi munu þirma hiordenne.

30. Og af ydur siálfum munu menn upprísa, sem tala rángar kenningar, at þeir teyge læresveinana efter sér.

31. Fyrer því vaked þer, og minnest á þad, at eg hefe í þriú ár, nótt og dag, eigi afláted, at áminna einn og sér hvern, med grátande tárum.

32. Og nú, kærer brædur! bifala eg ydur Gude, og orde hans nádar, hver máttugur er uppat byggia ydur, og arfsaku at gefa medal allra þeirra, sem helgader verda.

33. Eige gyrntest eg nockurs ydars silfur, gull eda klædnad.

34. Þvíat þer vited siálfer, at þessar hendur hafa mer unnid til minnar naudþurftar, og þeirra sem med mer voru.

35. Alltíd synda eg ydur, at svo byriade mønnum at erfida, og þá veiku at annast, og minnast orda Drottens Jesu, þar hann sagde: sællra er at gefa, enn at þigga.

36. Og þá hann hafde þetta sagt, fell hann á kne, og bad ásamt þeim øllum.

37. Þá gerdest grátur mikell medal þeirra allra, í því þeir løgdu hendur um háls Páls og kysdu hann.

38. Syrgiande mest af því orde sem hann sagde, at þeir mundu eigi siá hans andlit meir. Og þeir fylgdu hønum til skips.

## 21. Capitule.

1. Sem þad var skied, at ver skierum oss frá þeim, og fórum burt, komum ver beinleides til Co, og annars dags til Rhodus, og þadann til Patara.

2. Og þá ver fundum eitt skip, þad fara átte til Phenice, stigum ver þar á og fórum burt.

3. Enn sem ver fengum at siá Cyprum, letum ver hana til vinstre handar, og sigldum til Syria, og komum at Tyrus, því þar átte skipid at leggia upp farmenn.

4. Og sem ver fundum læresveinana, vorum ver þar sio daga, hverer Páli sögdu fyrer andagift, at hann skyllde eigi fara upp til Jerusalem.

5. Og þad skiede, sem þeir dagar voru lidner; fórum ver út og ferdudumst. Og þeir aller med húsfreyum sínum og börnum, fylgdu oss á veg, út fyrer borgena, og ver fellum á kne í fiörunne, og bádumst fyrer.

6. Og þá ver höfdum kvadt hver annann, stigum ver á skip, enn hiner sneru aftur til sinna heimkynna.

7. Og ver fullkomnudum siglinguna frá Tyrus, og komum til Ptolemaide, og heilsudum brædrunum, og vorum þar einn dag hia þeim.

8. Enn annars dags fórum ver burt, ver sem med Pále vorum, og komum til Cesarea, og gengum inn í hús Philippi gudspiallara: hann var einn af þeim sio, og dvöldum hiá honum.

9. Hann átte fiórar dætur, þær meyar voru, og spádu.

10. Og sem ver dvöldum þar fleyre daga, ferdadest spámadur sá af Judea, sem Agabus var at nafne.

11. Og kom til vor: hann tók linda Páls, og batt hendur sínar og fætur, og sagde: þetta seger Heilagur Andi: þann mann, hvers þesse linde er, munu Gydingar svo binda í Jerusalem, og selia hann í heidinna manna hendur.

12. Enn þá ver heyrdum þad, bádum ver hann, og þeir adrer sem í þeim stad voru, at hann fære eigi upp til Jerusalem.

13. Enn Páll svarade: hvad gerid þer, í því þer gráted og hrelled mitt hiarta? því eg em eige alleinasta reidubúenn at láta mig binda, helldur et deya í Jerusalem, fyrer saker nafns Drottens Jesu.

14. Og med því ver gátum eige taled um fyrer hönum, þögnudum ver, og sögdum: verde vile Drottins.

15. Og efter þá daga lögdum ver af vorn forángur, og fórum upp til Jerusalem.

16. Þángat komu og nockorer læresveinar med oss, af Cesarea, hafande þann nockurn gamlann læresvein med ser frá Cyprus, sem het Mnason, hia hverum ver herbergia skylldum.

17. Og þá ver nú komum til Jerusalem, tóku bræturner fegennsamlega vid oss.

18. Enn annars dags geck Páll inn med oss til Jacobum, og aller ölldungar komu þar.

19. Og sem hann hafde heilsad þeim, skírde hann þeimfrá, hvad efter annad, hvad Gud hafde gert medal heidinna þióda fyrer hans embætte.

20. Þá þeir høfdu þad heyrt, vegsømudu þeir Drottenn, og søgdu til hans: bróder, þú ser hvad mørg þúsund Gydinga þad eru, sem trúader hafa orded, enn þeir aller eru vandlætingar menn løgmálsins.

21. Og þeir hafa heyrt sagt efter þer, at þú kender þeim Gydingum øllum, sem medal heidinna þióda eru, at snúa frá Moyse, segande: þeir skyldu eige umskera sonu sína, og eige efter þeirre sidveniu gánga.

22. Hvad er nú þa? almugenn hlytur øldungis til samans at koma, þvíat þeir munu fa at heyra, at þú ert komenn.

23. Því ger nú þad, hvad ver segum þer: ver høfum her fióra menn, hverer heit hafa fest yfer ser.

24. Pa somu tak at þer, og hreinsa þig med þeim, og voga kostnad uppa þá, at þeir rake sín høfud, svo at aller vite, at þad, hvad þeir hafa heyrt um þig, er ecke, helldur at þú gánger siálfur og vardveiter løgmaled.

25. Því þeim sem trúader høfdu gerst af heidingum, skrifudum ver, og úrskurdudum, at þeir skylldu ecke þess konar hallda, nema at þeir vørudu sig vid skúrgodaoffre, og blóde, og frá køfnudu, og frá frillulífe.

26. Pa tók Páll þá menn at ser, og let annars dags hreinsa sig med þeim, og geck inn í musterid, og tiáde sig at hallda uppfylling hreinsunar daganna, þar til offrenu var offrad fyrer hvern þeirra.

27. Enn sem þeir siø dagar vorn lidner, sán þeir Gydingar úr Asia hann í Musterenu, og æstu upp allann lýdenn, løgdu hendur á hann.

28. Og kølludu: þer Israels menn, hiálpid til! þesse er sa madur, sem allstadar kenner øllum mønnum, gegn þessu fólke og løgmále, og svo móte þessum stad. Þar ofaná hefir hann innleidt Gricke í Musterid, og saurgad þennann heilaga stad.

29. Þvíat þeir høfdu sed Trophimum af Epheso, med hønum í Borgenne; þann meintu þeir at Páll hefde innleidt í Musterid.

30. Og øll borgenn ókirrdest, og tilhlaup vard af fólkenu. Og þeir tóku Pall høndum og drógu hann ut af Musterenu, og iafnsnart urdu dyrnar aftur læstar.

31. Enn sem þeir leitudu vid at lífláta hann, kom sú fregn upp fyrer þann ædsta høfudsmann skarans, at øll Jerusalem være uppvægd.

32. Hann tók strax strídsmenn og hundradshøfdinga til sín, og hlióp mille þeirra. Enn sem þeir sau høfudsmanneun, og strídsfólkid, gáfu þeir upp at beria á Pále.

33. Og þá høfudsmadurinn kom þar nærre, þá tók hann Paul, og baud at binda hann tveimur vidum, og spurde at, hver hann være, oa hvad hann hefde gert.

34. Enn sit kallade hver af fólkenu. Og med því hann feck ecke vist at vita fyrer hárevstis saker, baud hann at leida hann í herbúdernar.

35. Og sem hann uppkom at troppunum, hlutu strídsmennernir at bera hann fyrer afúg fólksins.

36. Þvíat mikill fólks fiollde fylgde efter og kallade: burt med þennann.

37. Og sem Páll var innleid-dur í herbúdernar sagde hann til hofudsmannsins; leyfist mer eigi at tala vid þig? enn hann sagde: kannt þú Grisku?

38. Ertþú eige sá hinn Egyptske madur, sem fyrer þessum dogum stirisld uppvakter? og færder út á eydemork fiórar þúsunder mordinga.

39. Enn Pál sagde: eg em madur, Gydinga kyns af Tarsus, einn borgare útaf nafnfrægre borg, í Cilicia. Eg bid þig, lofa mer at tala til fólksins.

40. Og þá hann losade hönum, ste Páll uppá troppurnar, og bandade hendenne til hlióds medal fólksins; og þá mikel þogn gerdest, talade hann til þeirra á ebreska túngu, og sagde:

## 22. Capitule.

1. Þer menn góder brædur og fedur, heyred at at eg forsvara mig hiá ydur.

2. Enn sem þeir heyrdu hann tala ebreska túngu til þeirra, gerdust þeir enn hliódare, og hann sagde:

3. Eg em madur Gydinga kyns, fæddur í Tarsus í Cilicia, enn uppalenn í þessare borg, til fóta Gamalielis, og med allre kostgæfne lærdur í voru fodurlegu logmále, og var vandlætingarsamur vegna Guds, líka sem þer erud aller enn í dag.

4. Eg hefe og þennann lærdóm offókt allt til dauda. Eg batt, og í vardhalld selde, bæde menn og konur.

5. Svo sem kennemannahofdingenn og allur hópur olldunganna ber mer vitne um, af hverum eg medtók bref til brædranna, og fór til Damascum, at eg dræge þá bundna til Jerusalem, sem þar voru, svo at þeir mættu pínder verda.

6. Enn þad skede, þá eg þangat fór, og tók at nálgast Damascum, nær midum dege, at leiptrade um mig skyndelega liós miked af himne.

7. Og eg fell til jardar, og heyrde eina rodd þá sem til mín sagde: Saul! Saul! hvar fyrer offæker þú mig?

8. Enn eg svarade: Herra! hver ertþú? og hann sagde til mín: eg em Jesus af Nazareth, hvern þú offæker.

9. Enn þeir, sem med mer voru, sáu liósid, og urdu felmsfuller, enn roddena þess, sem vid mig talade, heyrdu þeir eigi.

10. Enn eg sagde: Herra, hvad skal eg gera? Drottenn sagde til mín: statt þú upp og gack til Damascum, þar muna þer sagt verda af ollu, hvad þer tilskickad er at gera.

11. Enn sem eg gat eigi sed fyrer liósins biartleik, vard eg handleiddur af mínum forunautum, og kom til Damascum.

12. Enn þar var gúdhræddur madur efter logmalenu, Ananias, sem gódann ordstyr hafde af ollum Gydingum, sem þar biuggu.

13. Hann kom til mín, stód hiá mer og sagde: Saul broder, lít upp; og eg leit til hans á samre stundu.

14. Hann sagde þá: Gud fedra vorra hefir skickad þig til, at þú skyllder þeckia hans vilia, og at siá þann rettláta, og heyra rödd af hans munne.

15. Þvíat þú munt hans vottur

verda til allra manna, þeirra hluta sem þá hefir sed og heyrt.

16. Og hvad tefur þig nú? rís upp og lát skíra þig, og afþvo þínar synder, og äkalla þú nafn Drottens.

17. Það skede og, þá eg kom aftur til Jerusalem, þá eg var á bæn í Musterenu, at eg vard numenn frá mer, og eg sá hann.

18. Þá sagde hann til mín: skunda þig, og far burt af Jerusalem, þvíat eigi munu þeir medtaka þinn vitnesburd um mig.

19. Enn eg sagde: Drottenn, þeir vita siálfer'at eg sette í myrkrastofu, og húdstrykde þá allstadar í samkundu húsum, sem á þig trúdu.

20. Og þá blód Stephans vottar þins úthelltist, stód eg þar hiá og hafde þocknan á hans dauda, og eg geymde þeirra føt, sem hann ihelslógu.

21. Og hann sagde til mín far af stad, þvíat eg vil senda þig lángt burt á medal heidinna þióda.

22. Enn þeir heyrdu hann allt at því orde, þá høfdu þeir upp sínar radder og søgdu: burt med þennann af jørdu, þviat það er eigi rett, at hann skule lifa.

23. Enn sem þeir kølludu og vørpudu af ser sínum klædum, og fleygdu í lopt upp

24. Þá baud høfudsmadurenn at hann skyllde leidast inn í her búdernar, og skipade þeim at ransaka hann, og húdstrykia, svo hann fenge at vita, fyrer hvera søk þeir' hrópudu svo yfer hønum.

25. Og þá þeir reirdu hann til med strengum, sagde Pál til hundradshøfdingans, sem stod nær hønum: er það rett hiá ydur at húdstrykia romverskann mann án dóms og laga?

26. Og þá hundradshøfdingenn heyrde það, geck hann til þess ædsta høfudsmanns, og undervísade hønum það, og sagde: siá til hvad þú gerer! þesse madur er romverskur.

27. Þá kom yferhøfudsmadurenn til hans, og sagde: seg mer, ertþu romverskur? enn hann sagde: já.

28. Yferhøfudsmadurenn svarade: þennann borgarrett hlaut eg ærnu fe at kaupa. Pall sagde: eg em romverskur fæddur.

29. Jafnskiótt gengu þeir frá hønum, sem hann skylldu hafa rannsakat, og yferhøfudsmadurinn óttadest, þá hann fornam, at hann var romverskur, at hann hafde látid binda hann.

30. Annann dag efter villde hann greinelegar vita fyrer hvera søk hann klagadest af Gydingum, og leyste hann úr bøndum, og baud kennemannahøfdingunum, og øllu þeirra ráde at koma, og leidde sídann Pál framm og skickade hann framm fyrer þá.

## 23. Capitule.

1. Enn Páll horfde á rádet, og sagde: þer menn, kærer brædur, eg hefe af allre gódre samvitsku gengid fyrer Gude, allt til þessa dags.

2. Enn Ananias kennemannahøfdinge skipade þeim, sem hiá hønum stóda, at liósta á hans munn.

3. Þá sagde Páll til hans: Gud mun slá þig þú kalkade veggur; situr þú og dæmer mig

efter lögmálenu, og bídur at slá mig móte lögum?

4. Enn þeir sem hiá stódu, sögdu: bölvar þú ædsta kennemanne Guds?

5. Páll sagde: eg visse eigi, brædur, at hann var kennemannahöfdinge, þvíat skrifad er; höfdinga þíns lýds skalltu eige bölva

6. Sem Páll visse, at þar voru af einne hálfu Saducei, og af annare Pharisei, kallade hann upp fyrer rádenu: þer menn, góder brædur, eg em einn Phariseus, og sonur eins Phariseara, eg vert ákærdur fyrer saker vonar þeirrar dauda og upprísunnar.

7. Og þá hann sagde þetta, gerdest sundurþyckia mille Pharisearanna og Saducearanna, og mannfiöldenn skilde sig at.

8. Þvíat Saducei sega, at þar se eingenn upprisa framlidenna, eigi engell, ne ande; enn Pharisei vidurkenna hverttvegga þetta.

9. Enn þá gerdest háfade mikell, og hiner skriftlærdu af Pharisearanna lide, risu upp og stódu móte, og sögdu: ver finnum ecke vondslegt á þessum manne, þó at ande edur engell hafe vid hann talad, þá kunnum ver eige at strída móte Gude.

10. Enn sem þar vard miked upphlaup, uggade yferhöfudsmannenn, at þeir mundu sundurslíta Pál, og skipade strídsfólkenu ofann at fara, at slíta hann burt frá þeim, og leida í herbúdernar.

11. Enn annars dags um nóttena, stód Drottenn hiá hönum, og sagde: Páll! vertu hughraustur, þvíat líka sem þú hefir vitnad um mig í Jerusalem, svo hlýtur þú og svo at vitna um mig í Rom.

12. Enn þá dagur kom, samanntóku sig nockorer Gydingar, og heitstrengdu, at þeir skylldu hverke eta ne drecka, fyrr enn þeir hefdu Pále íhel komed.

13. Enn þeir voru fleyre enn fiörutyger manna, sem þetta samtak höfdu gert,

14. Þeir gengu til kennemannahöfdingganna, og öldunganna og sögdu: ver höfum hardlega formælt oss, at bergia einskis, þar til ver höfum Pál af lífe teked.

15. Því undervísa yferhöfudsmannenum, og rádenu, at hann láte leida hann út á morgun til ydar, líka sem þer villdud frammvegis yferheyra hann; enn ver erum reidubúner, at slá hann íhel, ádur enn hann kome fyrer ydur.

16. Og þá systursonur Páls heyrde þad áform, kom hann þángat og geck inn í herbúdernar, og undervísade þad Pále.

17. Enn Páll kallade til sín einn af hundradshöfdingiunum, og sagde: leid þú þennann únga pillt til yferhöfudsmannsins, þvíat hann hefir nockud at sega hönum.

18. Og hann tók hann at ser, og leidde hann til yferhöfdingans, segande: hinn bundne Páll kallade mig til sín, og bad mig at hafa þennann unga pillt til þín; hann helde at sega þer nockud.

19. Yferhöfudsmadurinn tók hann í hönd, og veik hönum útaf, spurde hann at: hvad er þad þú hefir at sega mer?

20. Enn hann sagde: Gydingar hafa samteked at bidia þig, at þú farer á morgun Pál fyrer rádet, svo sem þeir vile framarmeir rannsaka hann.

21. Enn trú þú þeim eigi; því meir enn fiörutyger manna veita

honum umsát, hverer heitstringt ha'a ser, hverke at eta ne drecka, þar til þeir gete honum (hel komed, og nú eru þeir reidubúner, bídande efter þínu svare.

22. Þá let oferhøfdingenn úngmenned burt fara fra ser, og baud honum at hann segde þad engum, at hann hefde opinnberad honum þetta.

23. Og kallade tvo underhøfudsmenn til sín og sagde: búed til tvo hundrud strídsmenn, at þeir fare til Cesaream, og siøtyge riddara og tvo hundrud skotmanna, um þridiu stund nætur.

24. Og reided til þann fararskióta, á hvern þeir kunnu at setia Pál, og færa hann óskaddann til Felicem landsstiórnara.

25. Og hann skrifadi bref, þad var svo hliodandi:

26. Claudius Lysias heilsar hinum volldnga landstiórnara Felix!

27. Þennann mann høfdu Gydingar høndum teked, og villdu hann (hel hafa slegeð, enn eg kom þá at med strídsfólkenu, og sleit hann af þeim, þá eg formerkde at hann var rómverskur.

28. Enn þá eg villde vita, fyrer hvera søk þeir áklǫgudu hann, let eg leida hann framm í þeirra ráð.

29. Enn eg fann þá, at hann áklagadest um spurningar í þeirra løgmále, enn enga ákæru hafde hann, þá dauda være verd, eda banda.

30. Og þá eg feck at vita, at nockerer Gydingar tóku vorð á honum, sende eg hann strax til þín, bióðande hans áklǫgurum at hvad þeir hefdu í móte honum, þad mættu þeir sega til þín: lor vel!

31. Enn strídsmennerner, efter því sem þeim var boded, tóku Pál at ser: og færdu hann burt um nótt til Antipatris.

32. Enn annars dags letu þeir riddara lided med honum fara, og sneru aftur til herbúdanna.

33. Enn sem þeir komu til Cesaream, fengu þeir landstiórnaranum brefid, og stickudu einnenn Pál fyrer hann.

34. Enn þá landstiórnarenn las brefid, spurde hann at: útaf hveru lande hann være? og þá hann fornam, at hann var úr Cilicia, sagde hann.

35. Eg skal rannsaka, þig, nær þíner ákærendur koma: og hann baud at vardveita hann í dómhúsi Herodis.

## 24. Capitule.

1. Enn efter fimm daga, fór Ananias kennemannahøfdinge med elldungunum ofann, og med honum Tertullus mælskumadur, hverer sig tiádu fyrer landsdomaranum gegn Pále.

2. Enn at Pále fyrerkolludum, tók Tertullus til at áklaga hann og sagde:

3. At ver lifum í miklum fride, under þer, og margar sæmder veitast þessu fólke fyrer þína frammsyne, ágætaste Felix! þad medtøkum ver iafnann og í hvernstad med allre Þackargerd.

4. Enn at eg drage þad eige lángsamlega, fyrer þer, bid eg þig, fyrer þína gædsku, at þú heyrer oss stuttlega.

5. Þennann mann høfum ver funded skadvænann, þann sem sundurþycke uppvæser medal allra Gyd-

ånga um allann heim, og foringa hins Nadverska villudoms.

6. Hann hefir og einnenn vid leitad at saurga musterid: ver gripum hann, og villdum hafa dæmt hann efter lögum vorum.

7. Enn Lysias kom þar framm, og leidde hann med miklu ofureste úr vorum höndum.

8. Bjódande hans áklögurum til þín at koma, af hverum þú mátt, ef þú siálfur villt eftergrenslast, fá alla þá hlute at skilia, um hvera ver áklögum hann.

9 Þá lögdu Gydingar til, og sögdu þad svo vera.

10. Enn Páll, þá landstiornar. enn bendte hönum at tala svarade: med því eg veit þig nú mörg ár dómara verid hafa þessarar Þiódar, vil eg diarflega forsvara mig.

11. Þvíat þú mátt vita, at þad eru eige meir enn tólf dagar sídan at! eg kom upp til Jerusalem at bidiast fyrer.

12. Og eige hafa þeir funded mig tala vid nockurn í musterenu, eda gera nockurt upphlaup med fólkenu, eigi helldur í samkundu-húsum edur stödum.

13. Og eige geta þeir þetta sannad, nú þeir ákæra mig.

14. Enn þad játa eg þer, at eg þióna efter þeim lærdóme, hvern þeir kalla villudóm, gudi minne fedra, svo at eg trúe öllu því, hvad í lögmálenu skrifád er, og spámönnunum.

15. Hafande þá von til Guds, hverrar þeir siálfer vænta, sem er, at upprisa frammlidinna mune áefter koma, bædi rettlátra og ránglátra.

16. Enn í þessu sama, idka eg siálfann mig jafnan at hafa öllu megenn óskerta samvitsku, bæde vid Gud og menn.

17. Enn mörgum árum þar efter, kom eg, og færde mínu fólke ölmusugiafer, og offur.

18 Þar med fundu þeir mig, at eg let mig hreinsa í musterenu, eige med háfada, ne nockorn upphlaupe.

19. Enn þar voru nockorer Gydingar úr Asia, hverer her ætti at vera fyrer þer, og áklaga mig, ef þeir hefdu nockud mer í möte.

20. Eilegar lát- þessa siálfa sega: hvert þeir hafa nockud rángferdugt á mer funded, á medan eg stend her fyrer rádenu.

21. Nema alleinasta fyrer þessa eins ords saker, þá eg stód þeirra á mille, og kallade: um upprisu frammlidinna verd eg í dag af ydur áklagadur.

22. Og þá Felix heyrde þetta, teygde hann fyrer þeim. Þvíat hann visse grant af þessum vege, og sagde: nær Lysias höfudsmadur kemur ofann, þá vil eg ransaka ydar málefne.

23. Enn hann skipade hundrads höfdinganum at forvara Pál, og láta hann hafa hvíld, og eigi fyrerbióda nockorum af hans kunningum, at þióna hönum, eda til hans at koma.

24. Nockorum dögum þar efter, kom Felix med húsfreyu sinne Drusilla, sú var Gydingakyns; þau kölludu á Páll, og heyrdu af hönum um truna á Christum.

25. Enn þá Páll talade um rettlæte og hreinlífe, og um efterkomanda dóm, skelfdest Felix, og ansade: gack hedann at sinne, enn

eg hefi túmstund til, vil eg þig kalla láta.

26. Enn hann vænte jafnframt, at hønum mundu peningar gefast af Pále, svo at hann lete hann lausann. Fyrer þvi let hann offtsinnis kalla á hann, og átte tal vid hann.

27. Enn at lidnum tveimur árum kom Porcius Festus, i Felix Stad. Felix villde þá syna Gydingum vild nockora, og let Pál bundinn efter sig.

## 25. Capitule.

1. Þá Festus var nú i land komenn, fór hann þrem døgum þar efter af Cesarea, upp til Jerusalem.

2. Þá mætte hønum sá æđste prestur, og þeir ypparlegustu medal Gydinga, med ákærum móte Pále, bádu hann,

3. Og beiddu um vináttu móte hønum, og at hann lete kalla hann til Jerusalem, gerandi fyrersát, svo at þeir mættu slá hann ihel á vegenum.

4. Þá svarade Festus, at Páll være at sønnu vardveittur i Cesarea, enn hann siálfr villde innann skams fara þángat aptur.

5. Þeir sem nú ydar á mille (sagde hann) kunna, láted þá fara líka ofan og áklaga þann mann, ef nockur skulld finnst med hønum.

6. Enn þá hann hafde hiá þeim vered meir enn tíu daga, fór hann ofann til Cesaream, og annars dags efter sette hann sig á dómstolenn, og skipade Paulum framm at leida.

7. Og sem hann kom, gengu þeir Gydingar kringum hann, sem komner voru ofann frá Jerusalem berande framm margar og þúngar sakargifter gegn Pále, hverar þeir gátu þó eigi sannad.

8. Af því at Páll svarade svo fyrer sig: eg hefe ecke broted, hverke móti Gydinga løgum ne musterenu, og eige helldur vid keisarann.

9. Festus villde þá syna Gydingum velvilld, svarade Pále og sagde: villtþu fara upp til Jerusalem, og dæmast þar af mer um þetta?

10. Enn páll sagde: eg stend fyrer keisarans dóme, þar skal eg láta mig dæma, því Gydingum hefi eg enga vansemd gert, svo sem þú siálfur vel veist.

11. Enn hafe eg nockorum órett gert, eda dauda forþent, þá mæle eg eige móte at deya. Enn ef ecke finnst þeirra hluta, hvar fyrer þeir ákæra mig, þá má eingen mig þeim i hendur selia: eg skyt mer fyrer keisarann.

12. Festus rádgadest þá um vid ráded, og svarade: fyrer keisarann hefir þú þer skotid, til keisarans skalltþú og fara.

13. Enn nockorum døgum þar efter, komu þau Agrippas konungur, og Bernice, ofann til Cesarea, at segia Festum velkomenn.

14. Og þá þau høfdu þar marga daga verid, skírde Festus konungenum frá málefnum Páls, og sagde: nockur madur er her i fiøtrum af Felix efterláten,

15. Hversvegna prestahøfdingar og ölldúngar Gydinga komu fyrer mig, þá eg var til Jerusalem, og bádu, at eg skyllde láta dæma hann;

16. Hverum eg svarade, at þad være eige háttur Romvera, at nock-

ar madur være til dauda selldur, fyrr enn sá, sem klagadest, hefde sína áklagendur nálæga, og fenge þar med tóm til at forsvara sig fyrer ákløgunenne.

17. Enn þá þeir komu her til samans, dvalde eg ecke lenge vid, og hellt dóm annars dags, og skipade fram at leida þann mann.

18. A hvern, þá áklagararner komu til, báru þeir enga þá søk, sem eg ætlade.

19. Helldur høfdu þeir nockorar spurningar móte hønum, um þeirra hiátrú, og af nockorum frammlidnum Jesu, hvern Páll vottar lifa.

20. Enn þá eg nnderstód eigi þess háttar spurningar, sagde eg; hvert hann villde fara upp til Jerusalem, og dæmast þar um þetta.

21. Enn þá Páll krafde, at hann geymdest til keisarams rannsaks, baud eg at vardveita hann, þar til eg sende hann keisaranum.

22. Þá sagde Agrippas til Festum: Eg villde og fá at heyra þennann mann. Han sagde: á morgum skalltþú hann heyra.

23. Enn annars dags, þá Agrippa og Berenice komu med miklu skraute, og gengu inn í rádhúsed, med yferhøldingum, og þeim ædstu mønnum borgarennar, og þá Festus skipade, var Páll sóktur.

24. Festus sagde: kære Agrippa konungur, og þer aller menn, sem her erud med oss, þar siáed þer þann mann, af hverum allar Gydinga sveiter hafa til mín sagt, bæde til Jerusalem, og svo her, og hrópa, at hann skule eigi lengur lifa.

25. Enn þá eg fornem, at hann halde ecke gert þad dauda være verdt, med því, at hann siálfur skaut ser under keisarann, þá hefe eg einsett mer, at senda hann þángat.

26. Um hvern eg hefe ecke sannarlegt, hvad eg mege minnum Herra til skrifa, fyrer því hefe eg látid leida hann her framm fyrer ydur, og einna mest fyrer þig, Agrippa konungur! svo at eg, efter umlidna rannsókn, mætte þad fá, hvad eg skrifa skyllde.

27. Því þad synest mer óskickanleat, at senda nockurn bandinga, og ecke láta vita, hverar saker til hans eru kærdar.

## 26. Capitule.

1. Enn Agrippas sagde til Páls: þer leyfest siálfum at tala fyrer þig. Þá forsvarade Páll sig, og rette út høndenn:

2. Þad er mer nærsta kært, Agrippa konungur, at eg náe í dag, at forsvara mig fyrer þer, af því øllu sem eg áklagast af Gydingum.

3. Mest lak því, at þú veitst allar veniur og spurningar Gydinga, fyrer því bid eg þig, at þú villder þolinnmódlega heyra mig.

4. Ad sønnu mitt liferne frá barnæsku, hvert verid hefir þegar frá upphafe hiá þessare þiód í Jerusalem, vita aller Gydingar, þeir mig þeckta fordum, ef þeir villdu þar vitne umbera.

5. Þvíat eg hefe vered einn af Phariseurum, þeir eru hinn strángasti frædaflockur í vors Guds þiónustu.

6. Nú stend eg og verd áklagadur um von þess fyrerheitis,

sem sked er af Gude, til fedra vorra.

7. Til hvers vorar tólf kynkvísler vona sier at koma med stödugre Guds þiónkan, nótt sem dag: vegna þeirrar vonar, Agrippa konungur! þá áklagast eg af Gydingum.

8. Fyrer hvad dæmest þad otrúanlegt hiá ydur, at Gud uppveke þá frammlidnu?

9. Eg meinte at sönnu, med siálfum mer, at eg mætte miked mótegera nafne Jesu af Nazareth.

10. Hvad eg og gerde til Jerusalem, hvar eg luckte margann heilagann í myrkrastofu, at fengnu vallde af kennemannahöfdingum; og þá þeir voru afteknir, hiálpade eg til at sega upp dóminn.

11. Og um öll samkunduhús, kvalde eg þá oftlega, og þvíngade þá til gudlastanar; og eg var, meir enn hófe gegnde, ódur móte þeim, og veitte þeim ofsókner í framande borgum.

12. Fyrer hverra hluta saker, þá eg fór til Damascum, med magt og bodskap fyrer prestahöfdingunum.

13 Þá á midium dege, sá eg, herra konungur! á vegenum liós af himne, sólarskine biartara, þad um mig leiptrade, og um þá sem med mer fóru.

14. Enn þá ver fellum aller til jardar, heyrde eg rödd til min sega, sú sem á ebresku sagde: Saul! Saul! hví ofsæker þú mig? hardt er þer at spyrna móte broddenum.

15. Enn eg sagde: hver ertþú, Herra? Hann sagde: Eg em Jesus, hvern þú ofsæker.

16 Enn rís þú upp og statt á þínar fætur, þviat til þess birtest eg þer, at eg skicki þig til þenara, og vitnis þeirra hluta, hvera þú sast, og þeirra sem eg skal þer enn birta.

17. Og eg vil frelsa þig frá fólkenu, og frá heidingum, medal hverra eg mun þig útsenda,

18. Þeirra augum upp at lúka, svo at þeir snúe sier frá myrkrum til lióssins, og frá andskotans vallde til Guds, svo at þeir medtake syndanna fyrergefning, og arftökum med þeim, sem helgader verda, fyrer þá trú, sem á mig er.

19. Fyrer því var eg eige, konungur Agrippa! himneskre opinberun óhlýdenn, helldur bodade eg.

20. Fyrst þeim í Damasko og Jerusalem, og um landamerke alls Gydingalands, og fyrer heidingum at þeir gerdu yferbót, og snere sier til Guds, og gerdu verdug verk idranarennar.

21. Og fyrer þá sök gripu Gydingar mig í musterenu, og villdu hafa lífláted mig.

22. Enn fyrer Guds fulltínge, heppnadest mer, at eg stend allt til þessa dags, vitnande bæde fyrer smáum og stórum, og segande ecke annad, enn þad sem spámennerner og Moyses hafa fyrersagt, at ske skyllde.

23. At Christus skyllde líða, og fyrstur vera út af upprisu framlidinna, og sa sem liós skylldi lydnum boda, og svo heidnum þiódum.

24. Enn þá hann hafde svo forsvarad sig, sagde Festus hárre raustu: ódur ertþú ordenn, Páll, þat mikla bókvit gerer þig ódann.

25. Enn hann sagde: eige em

eg odur, þú megtuge Festus! helldur tala eg sønn og skinsamleg ord.

26. Þvi konungurenn veit þetta vel, hiá hverum eg tala diarfléga, því eg meína, at ecki af þessu mune fyrer hønum fólged vera, af því at þetta er ecke í hyrníngum skied.

27. Trúer þú, Agrippa konungur, spámønnunum? eg veit at þú trúer.

28. Enn Agrippa sagde til Páls: lítid vantar á at tala upí fyrer mer, svo at eg gerest Christenn.

29. Enn Páll sagde: þess æske eg af Gude, hvad brestur í miklu edur litlu, eige alleinasta þú, helldur og einnenn aller þeir sem mig heyra í dag, væru þvílíkir sem eg em, undanteknum þessum bøndum.

30. Og þá hann hafde þetta talad, stód konungurenn upp, og landstiórnarenn, og Berenice, og þeir hiá þeim sátu.

31. Enn sem þeir viku affsídis, tøludu þeir sín á mille, og søgdu: þesse madur hefir ecke gert, þad dauda se eda banda verdt. Þá sagde Agrippas til Festum:

32. Þesse madur hefde mátt laus verda látenn, ef hann hefde eigi skotid ser fyrer keisarann.

## 27. Capitule.

1. Sem þad nú var álycktad, at ver skylldum sigla þadann til Vallands, fengu þeir Pál og nockra adra bandingá, þeim hundradshøfdinga út af keisarans hird, sem Julius var at nafne.

2. Og þá ver stigum á eitt Adramytiskt skip, og villdum sigla fyrer Asiam, þá letum ver frá lande. Og Aristarchus úr Macedonió, af Thessalonica, var med oss.

3. Og ver komum annars dags til Sidon, og Julius byrte sig blídann vid Pál, og losade hønum at gánga til sinna godra vina, at sylla sinna naudþursta.

4. Þadann fórum ver, og sigldum under Cyprus, fyrer því, at vindarner voru oss móthverder.

5. Og ver sigldum yfer þad haf, framan fyrer Cilicia, og Pamphiliá, og komum til Myra í Lycia.

6. Þar fann hundradshøfdingenn eitt skip úr Alexandria, þad sigla átte til Vallands; á þad sette hann oss.

7. Enn þá seint veitte at siglæ, svo at ver komustum varla um marga daga gegnt Cnidus (því vindurenn var móte oss) sigldum ver framm med Creta, hiá borgenne Salmone,

8. Og gátum þó varla beitt framm hiá. Þá komum ver í nockud þad pláts, sem kalladest Sæluhøfn, þar lá og borgen Lasæa í grend vid.

9. Enn þá mikler tímar voru umlidner, med því nú var þó hættumeire siglingen, þar fastann var þá umlidenn, fyrer þad ráblagde Páll þeim, og sagde til þeirra:

10. Góder menn, eg se at vor sigling mun verda bæde mædusøm og skadamikel, eigi alleinasta fyrer farmenn og skiped, helldur og einnen vort líf.

11. Enn hundradshøfdingenn trúde meir skipherranum, og stiremannenum, enn því sem Páll sagde.

12. Og med því høfnenn var eigi hæfeleg til vetrarlegu, þókte flestum ráblegt at fara burt þadann, ef þeir mættu komast þadann til

Phœnicia, til at liggia vetrarlegu, hvar þar er ein høfn hiá Creta móte sudvestann og nordvestann vinde.

13. Enn þá sunnann vindur tók at gusta, og þeir meintu, at þeir mætta hallda nú sínum ásetninge, þá lyptu þeir sér frá Asson og helldu fyrer framan Cretam.

14. Enn eige lángt þar efter, hófst upp, móte þeirra ásetninge einn stormur, þann menn kalla nordaustann.

15. Og þá skiped lá under áfølllum, og gat eige lypt sér upp móte vedrenu, letum ver draga fyrer vind, og voukudum svo.

16. Enn ver komum vid ey nockora, þá Clauda het, þar gátum ver varla biargat bátnum.

17. Enn ver lyptum hønum upp, og hiálpudumst at, og bundum hann vid skiped, þviat ver óttudustum, at þad munde bera uppá skeren, og letum Sverdit nidur og fórum svo.

18. Og þá ver høfdum stercann storm líded, kostudu þeir annars dags út.

19. Og á þridia døge snørudum ver út med vorum høndum øllum fararreide, þeim sem var í skipenu.

20. Og í marga daga skein hvørke sól ne stiørnur, enn stormvedrátta eigi lítel var oss á móte: þá var oss øll lífsvon hvorfinn.

21. Og þá menn høfdu lenge einskis neytt, þá geck Páll í midio til þeirra, og sagde: góder menn, þer skylldut hafa hlydt mer, og eigi leyst út af Creta, svo hefdum ver eigi lided þessa kvøl og skada.

22. Og nú ræd eg ydur, at þer seud med gódu gede, þviat einskis manns før af oss mun tortinast, at fraleknu skipenu.

23. Þvi á þessare nóttu stód hiá mer engell Guds, þess eg em, og þeim eg þióna.

24. Og sagde: óttast þú ecki Páll, þer byriar fyrer keisarann at koma, og siá, at Gud hefir gefed þer þá alla, sem med þer sigla.

25. Fyrer því, góder menn, verid hugdrauster, þviat eg trúe Gude at þad mune svo ske, sem mer er sagt.

26. Enn til eyar nockorar hliót um ver at koma.

27. Enn þá hin fiórtanda nót var yferkominn, sigldum ver um midnætte til Adria; farmennena grunadi þá, at þeir mundu komast einhvørs stadar til lands.

28. Og vørpudu grunsøku, og fundu tuttugu fadma diúp, og skamt eitt þadann kostudu þeir søkunne í annat sinn, og fundu fimtan fadma.

29. Þá hrædduft þeir, at þá munde mega steyta á skerum, og sleygdu úr bakskutnum fiórum akkerum, og æsktu at dagur kæme.

30. Enn þá skipverarner leitudu vid at flya skiped, og letu bátana á sióenn siga, under þeirra hylmingu, at þeir letust vilia úr framskipenu útfæra akkere.

31. Þá sagde Páll til hundradshøfdingens, og stridsmannanna: nema at þessir blife kirrer í skipenu, þá kunned þer eige at halldast vid lífid.

32. Þá hinggu stridsmennerner bátfestarnar og letu ofann detta.

33. Og þá byrta tók, red Páll þeim øllum at þeir tæku fædslu til sín, og sagde: þad er í dag hinn fiórtánde dagur, at þer hafid bidleikad vid, og fastande verid, og á engu bergt.

34. Fyrer þvi ræd eg ydur, at þer taked fædslu, og næred ydur, þviat ecke eitt hár mun af nockurs ydru høfde falla.

35. Og þá hann hafde þetta rædt, tók hann brauded, gerde Gude þacker í allra þeirra augsyn, braut þad, og tók at eta.

36. Þá urdu þeir aller hughrauster, og tóku ser og svo fædslu.

38. Og þá þeir voru metter, lettu þeir af skipenu, og køstudu kornenu í sióenn.

39. Enn þá dagur var, þecktu þeir eige landed, enn þeir sáu eina høfn, sem fiøru hafde, þángad villdu þeir stíra skipenu, ef þeir mættu þvi vidkoma.

40. Og þá þeir drogu upp akkeren, slóu þeir ser til siós, og leistu upp styred, og settu rána efter vedrenu, og leitudu lags at komast til lands.

41. Og þá ver komum á eitt pláts, hvar siór geck at á bádar sídur, steytte þar skiped á, svo at frammskipid stód grunn óhræranlega, enn skuturenn lestest sundur af ofurefle bylgnanna.

42. Enn stridsmennerner løgdu þad rád til, at bandingarner væru drepner, svo at eingenn þeirra umhlype, þótt út kynne at sveima.

43. Enn hundradshøfdingenn villde Páll eige granda láta, og tálmade þeirra ásetninge, og baud, at þeir sem syndt gætu, skylldu fyrster fleyta ser utann, og komast undann at lande.

44. Enn hiner adrer, sumer á blemmunum enn sumer á skip brotunum: og rád skede svo, at þeir komust aller hólpner til lands.

## 28. Capitule.

1. Og þá ver vorum lendtir, þá komumst ver at raun, at eyenn het Melite, enn þeir lyder syndu oss eige litla vináttu.

2. Kveiktu elld, og medtóku oss alla, vegna hreggvidris, semyfer oss hafde drifid, og fyrer kulda saker.

3. Og þá Páll safnade einne hrúgu af hrise tilsamans, og lagde á elldenn, þá skreid nadra úr hitanum, og hrøcktist á hønd Pále.

4. Enn þá fólked sá, at kvikinded heck á hende hans, søgdu þeir sín á mille: endelega mun þesse madur manndrápare vera, hverum hefndenn leyfer eige at lifa, þó hann se úr sióarháska leystur.

5. Enn hann hriste ormenn í elldenn, og hønum vard ecke mein at.

6. Þá bidu þeir efter, at hann munde uppþrútna, eda daudur nidur detta. Og sem þeir høfdu lenge efter þvi bided, og sáu ecke vondt á hønum verda, fengu þeir sinnaskiftr, og søgdu hann Gud vera.

7. Enn í þeim sømu takmørkum hafde føringe eyarennar sinn búgard, sá Publius het, hver oss medtók, og veitte oss herberge um þria dága allvingiarnlega.

8. Enn svo bar til, at fader Publii lá kvalenn í køldu, og blódsótt; til hans geck Páll inn, og badst fyrer, og lagde hendur yfer hann, og gerde hann heilbrigdann.

9. Þá þad var skeд, komu og hiner adrer á eyunne þángat, sem sótter høfdu, og letu sig lækna.

10. Og þeir veittu oss miklar virdingar, og þá ver sigldum þadann, løgdu þeir til, hvad oss var þarfsamlegt.

11. Og efter þriá mánude sigldum ver þadan, á því skipe, sem var úr Alexandria, hvert í eyunne hafde leged um veturenn. Pad hafde fyrer merke tvíbura teikn.

12. Og þá ver komum til Syracusa, vorum ver þar í þriá daga.

13. Og þá ver sigldum umkring, komum ver til Rhegion, og einum deige þar efter, sem sunnannvind ur tók at blása, komum ver annars dags til Putcoli=

14. Hvar ver fundum brædurnar, og urdum af þeim bedner, at ver tefdum þar siø daga, og svo komum ver til Roms.

15. Og þá brædurner heyrdu þadana af oss, gengu þeir út móte oss allt til Appii torgs, og þeirra þrigga herberga, og þá Páll leit þá, gerde hann Gude þacker, og feck traust.

16. Enn þá ver komum til Roms, afhendte høfudsmadurenn bandingana þeim ædsta høfudsmanne, enn Pále var løfad at vera hvar hønum líkade, med þeim einum stridsmanne sem á hønum hafdi vakt.

17. Pad skede þrem døgum þar efter, at Páll samankallade hina ædstu menn af Gydingum. Pá þeir voru tilsamans komner, sagde hann til þeirra: þer menn, góder brædur, eg hefe eigi gegn voru fólke gert, ne móte fødurlegre sidveniu, og em þó bundenn Romverum í hendur fengenn frá Jerusalem.

18. Hverer mig villdu hafa lausann láted, þá þeir høfdu mig heyrt, med því þeir fundu enga daudasøk med mer.

19. Enn þá Gydingar mælltu móte því, neyddest eg til at skióta mer fyrer Keisarann, eigi þess vegna, at eg hefde um nockud at áklaga mitt fólk.

20. Enn fyrer þad tilefne bad eg ydur, at eg mætte siá ydur, og tala vid ydur, því fyrer saker vonar Jsraels em eg med þessum hleckum umvafdur.

21. Peir søgdu til hans: eingenn bref høfum ver fenged þinna vegna af Gydingalande, og engenn bróder er þadann komenn, sá af þer hafe nockud vondt kunngert, eda til þín talad.

22. Pó fyser oss at heyra af þer, hvad þú helldur, því af þeim villudóme er oss þad vitannleg, at hønum verde allstadar móte mælt.

23. Og sem þeir einkudu hønum dag, þá komu marger til hans í hans herberge, hverum hann útlagde og vitnade Guds ríke, og talade fyrer þeim um Jesus, úr Moysis løgmále og spámønnunum, frá morgne allt til kvølds.

24. Og nockorer út af þeim fellu í sið med því sem hann sagde, enn sumer trúdu því eige.

25. Og þá þeir voru eigi sam þycker sín á mille, gengu þeir burt, þá Páll talade þad ord: vel hefir heilagur ande talad fyrer Esaiam spámann, til fedra vorra.

26. Og sagt; far þú til þessa fólks, og seg: med eyrum munu þer þad heyra, og ecki skilia, og med augum munu þer þad siá og eigi formerkia.

27. Pvi hiarta fólks þessa er forharnad, og med eyrum heyra þeir þúnglega, og sín augu hafa þeir samann lukt, svo at þeir siáe ecki einu sinne med augunum, og heyre ecki med eyrunum, og skile ecki med hiartanu, og snúest, svo og Hiálpade þeim:

28. Fyrer þvi se ydur kunnugt, at heidingum er sendt þetta Guds hialpræde, og þeir munu heyra þad.

29. Og þá hann talade þetta, gengu Gydingar burt, og lösdu margar spurningar siálfer sín á millum.

30. Enn Páll dvalde um tvö ár í sínu leiguhúsi, og medtók þá alla sem til hans inngengu, predikande Guds ríke, og kennande Drottinn Jesum med allre diörfung, og þad fyrerband honum eingenn.

Ender Postulanna Gerninga.

# S. Páls Pistill til Romveria.

## 1. Capitule.

1. Páll þiónn Jesu Christi, kalladur til Postula, útvalenn til at predika Guds evangelium.

2. Huern hann hafde ádur fyrerheitid fyrer sína spámenn, í heilagre ritningu.

3. Af sínum syne, hver fæddur er af Davids sæde efter holldenu.

4. Enn volldugleg auglystur sonur Guds efter andanum, sá sem helgar, sídan hann er uppstadenn frá daudum, sem er Jesus Christur vor Drottinn.

5. Fyrer hvern ver höfum medteked nád og postullegt embætte, á medal allra heidinga, trúarenner hlydne upp at retta, under hans nafne.

6. Af hverum þer erud og einnenn, sem kallaer eru af Jesu Christo.

7. Öllum þeim Guds elskulegum, og kolludum heilögum sem eru í Rom, náð og fridur af Gude vorum fódur, og Drottne vorum Jesu Christo, sá se med ydur.

8. Fyrst gere eg þacker mínum Gude, fyrer Jesu Christum, allra ydar vegna, at ydar trú berst út um allann heim.

9. Þviat Gud er minn vottur (hverum eg þióna í mínum anda, í Evangelio hans sonar) um þad, at eg óaflatannlega minnest ydar.

10. Og iafnann í mínum bænum bid eg þess, ef þad villde einusinne ske, at eg mætte koma til ydar fyrer Guds vilia.

11. Þvi mig lángar at siá ydur, svo at eg bytte ydur nockore andlegre giöf, ydur til styrktar.

12. (Þad er) at eg mætte taka huggan med ydur, fyrer ydra trú og mína, sem ver höfum ásamt.

13. Enn eg vil eigi dylia fyrer ydur, kærer bræckur, at eg einsetta mer oft at koma til ydar (enn eg hefe hindradur verid til þessa) svo at eg hefde kunnad at gera svo nockurn ávöxt ydar á medal, líka sem á mille annara heidinga.

14. Eg em skulldanautur, bæde Griskra, og eigi griskra, spakra, og óspakra.

15. Af þvi, svo mikid sem eg megna, em eg reidubúen til, einn-

enn ydur sem erud í Rom, at predika evangelium.

16. Þviat eg skammast mín eigi fyrer evangelium út af Christo. Því þad er kraftur Guds, sem biálplega gerer alla þá, sem þar á trúa, Gydinga ferdeilis, og gricke einnenn.

17. Af þvi, at þar opinnberast inne þad rettlæte, sem fyrer Gude dúger, hvert kemur út af trúnne, til trúarennar, svo sem skrifad er: sá rettláte mun af sinne trú lifa.

18. Þviat Guds reide opinnberast af himne yfer allt ógudlegt athæfe, ogránglæte manna, þeir sem sannleikanum uppe hallda í ránglætenu.

19. Því menn vita, at Gud er til, þad er þeim opinbert, þviat Gud hefir þeim þad openberad.

20. Med því at Guds ósyneleger hluter siást, þad er, hans eylífur kraftur, og guddómur, þegar menn gæta þar at, á verkunum, sem ero á veralldarennar sköpun, svo at þeir hafa enga afsöktun.

21. Med því þeir vissu þad, at þar er einn Gud, og hafa hann þó eigi prísad svo sem einn Gud, ne honum þacker gert: helldur eru þeir í þeirra hugrenningum at hegóma ordner, og þeirra fávíst hiarta er formirkad.

22. Þá þeir helldu sig vísa vera, eru þeir at þussum ordner.

23. Því þeir hafa umsnúed dyrd óforgengelegs Guds, í líkneskur forgengelegra manna, fugla og ferfættra dyra, og skridkvikinda.

24. Af því hefir Gud og gefid þá út í þeirra hiartans gyrnder, og óhrein'eika, at þeir skömmudu sína egin líkame, á siálfum ser.

25. Hverer Guds sannleika hafa umsnúed í lygar, og hafa meir dyrdkad og þiónat skepnunne enn skaparanum, hver losadur er at eylífu; amen.

26. Hvar fyrer Gud útgaf þá í skammsamlegar gyrnder, þviat konur þeirra hafa snúed náttúrlegre atferd í ónatturlega.

27. Slíkt hid sama og menn' erner hafa yfergefid edlelega atferd til konunnar, og lagndu í sínum gyrndum, hver til annars, og hefir svo madur med manne skömm framid, og medteked svo verdkaup síns villudóms (efter því sem verdugt var) á siálfum ser.

28. Og líka sem þeir hafa eigi gefit þvi gaum at þeckia Gud, svo hefir Gud yfergefid þá, í fráleidu sinne, at gera þad, hvad eigi hæfer.

29. Fuller upp alls ránglætis, fridlulifnadar, illmennsku, ágyrndar, vondsku, fuller haturs, manndráps, þrætu, svika, óheilinda,

30. Kvíssamer, bakmáluger, Guds forsmánarar, hádgiarner, drambsamer, siálfhælner, illt uppáfinnande, foreldrum óhlyduger.

31. Skilningslauser, óhalldsennorder, óstlauser, ósattgiarner, ómiskunsamer.

32. Hverer Guds rettlæte vita (at þeir seu dauda verduger, sem þvilíkt gera) og gera þad þó eigi at eins, helldur hafa þocknan á þeim, sem þad gera.

## 2. Capitule.

1. Fyrer því kanntþú eige, ó madur! þig at afsaka, hver hellst þú ert, sem dæmer. Því hvar þú dæmer um annann, þar fordæmer

þú siálfann þig, med því, þú gerer þad sama, hvad þú dæmer.

2. Því ver vitum, at Guds dómur se rettur yfer þeim, sem þvílikt gerá.

3. Enn þeinker þú, ó madur! sem dæmer þá, sem þvílikt gera, og þú gerer hid sama, at þú muner umsla Guds dóm?

4. Eda forsmáer þú ríkdom hans gódgyrndar þolenmæde, og láng lundarged? veitstu eige þad, at Guds gódgyrne leider þig til yferbótar?

5. Enn þú efter þínu forstockada og forherdta hiarta safnar þer siálfum reide, á reidinnar dege, og opinuberunar Guds rettlætis dóms.

6. Sá sem gialldá mun einum og serhverum efter hans verkum.

7. Sem er, heidur og vegsemd, og ófallvallta veru, þeim sem med þolinmæde í gódum verkum stunda efter eylífu life.

8. Enn hinum, sem þrætugiarner eru, og hverer eige hlyda sannleikanum, enn hlyda helldur ránglæte, bræde og reide.

9. Hrellinger og harmkvæle yfer allar sáler þeirra manna, sem illtu drygia, fyrst Gydinga, og einnenn Gricka.

10. Enn heidur, vegsemd og fridur. ollum þeim, sem gódt gera, fyrst Gydingum og svo Grickum.

11. Þvíat ecke manngreiunar álit er fyrer Gude.

12. Því þeir sem án logmáls hafa syndgad, þeir munu og án logmáls fyrerfarast, og þeir sem í logmálenu hafa syndgad, munu fyrir logmálid dæmder verda.

13. Med því, at áheyrendur logmálsins eru eigi rettláter fyrer Gude, helldur munu þeir verda rettláter, sem logmálid gera.

14. Því ef þeir heidnu, sem eige hafa logmálid, enn gera þó af nátturunne logmálsins verk, þeir sömu, med því þeir hafa eigi logmáled, eru þeir ser siálfer logmál.

15. Í því þeir bevísa, at logmálsins verk seu skrifud í þeirra hiörtum, med því þeirra samvitska siálf ber þeim vitne, og þar med þeir þánkar, sem sín á mille munu áklaga sig edur afsaka innbyrdis.

16. Á þeim dege, nær Gud dæmer leyndá hluti manna, efter mínu evangelio, fyrer Jesum Christum.

17. Enn siá, þú kallast Gydingur, og forlætur þig uppá logmáled, og hrósar þer af Gude.

18. Og veitst hans vilia, og med því þú ert lærdur í logmálenu, reyner þu, hvad bedst se at gera.

19. Og þú treystir þer til at vera blindra leidtogi, og liós þeirra, sem í myrkrum eru.

20. Fávísra tiptunarmadur og lærefader einfalldra, hafande bæde vitskunnar form, og sánnleikans í logmálenu.

21. Nú lærer þú annann, enn siálfann þig lærer þú eige; þú predikar, at eige skule stolid vera, og þú stelur,

22. Þú seger: at eigi skule hórdómur drygiast, og þú dryger hór; þú hefir andstygd á skurgodum, enn ræner Gud sinu.

23. Þú hrósar þer af logmálenu og vanvirder Gud fyrer yfertroðslu logmálsins.

24. Þvíat fyrer ydra skullð, verdur Guds nafn lastad medal heidinna þióda. svo sem skrifad er.

25. Umskurnenn er nytsamleg at sönnu, ef þú vardveiter log-

maled, enn ef þú ert yfertrodslu-madur logmalsins, þá er þín umskurn nú þegar ordenn at yferhúd.

26. Nú ef yferhúden helldur rettlæted í logmálenu, meinar þú eige, at hans yferhúd verde reiknud fyrer umskurn?

27. Og þad sem er af náttúrunne yferhúd, og logmáled fullkomnar, mun svo dæma þig, sem ert under bókstafnum, og umskurnene, og ert yfertrodslumadur logmálsins.

28. Þviat sá sem útvortis er Gydingur, er eigi Gydingur og sú útvortis umskurn í holldenu, er eigi umskurn.

29. Helldur er sá Gydingur, sem innvortis er hulenn, og umskurn hiartans er sú umskurn sem sker í andanum, enn eigi í bókstafnum, hverrar lofstyr eige er af monnum, helldur af Gude.

## 3. Capitule.

1. Hvad hefir þá Gydingur til þess, at hann se fremre? eda hver nytsemd er at umskurnenne?

2. Sannlega nærsta mikel, serdeilis, at þeim er tiltrúad til Guds ordss.

3. Enn at nockorer hafa eigi trúad á þad sama, hvad um þad? skyllde þeirra vantrú gera Guds trú at engu?

4. Fiærre se þvi, helldur blífe þad svo, at Gud se sannsøgull, enn aller menn lygarar, svo sem skrifad stendur: uppá þad at þú rettlátur sert í þínum ordum, og yfervinner, nær þú dæmest.

5. Enn er þad svo, at vort ranglæte prise Guds rettlæte, hvad vilum ver sega? er Gud þá ranglátur, þóat hann reidest þar fyrer? (Eg tala svo efter plagsid manna).

6. Fiarlægt se þvi: hvernenn kynne Gud ellegar heimenn at dæma?

7. Þvi ef Guds sannleikur verdur fyrer mína lygd yferflótanlegri til hans dyrdar, hvar fyrer skyllde eg þá enn nú, sem annar syndabrots madur dæmdur verde?

8. Og eigi mikle framar, svo breita, sem illa verdur um oss talad, og svo sem nockorir herma á oss, at ver segum: gerum illt, svo at godt efter kome; hverra fyrerdæming er alldeilis rettvís.

9. Hvad skulum ver þá nú sega? høfum ver þá nockora yferburde? alls enga, þvi ver høfum ádur bevísad, bæde Gydinga og Griska alla under synd at vera.

10. Efter þvi sem skrifad er: þar er eigi neckur sem rettvís er, og ecke einn.

11. Þar er eigi nockur, sá sem skinugur se, og eingenn sá sem at Gude leite.

12. Aller eru þeir fráviktner og aller ónyter ordner, og einginn er sá, sem godt gerer, og eige einn.

13. Þeirra barke er openn grøf, og med sínum tungum bandtera þeir svikfamlega; høggorma eytur er under þeirra vørum.

14. Og munnur þeirra er fullur af bølvan, og beiskleika.

15. Fætur þeirra eru flióter til blóds úthellingar.

16. Í þeirra vegum er ecke annad enn ógiæfa og hiarta sorg.

17. Og fridarins veg þeckia þeir eige.

18. Og þar er einginn Guds ótte fyrer þeirra augum.

19. Enn ver vitum, at hvad løgmalid seger, þad seger þad þeim, sem under løgmalenu eru, svo at allra munnur verde tilbyrgdur, og heimurinn allur vid Gud sakadur.

20. Fyrer þvi, at ecke holld af løgmalsins verkum getur fyrer honum rettlátt vordid, þviat fyrer løgmálid kemur vidurkenning syndarennar.

21. Enn nú er án løgmalsins studnings þad rettlæte opinberad, sem fyrer Gude duger, og vitnad fyrer løgmaled og spámennena.

22. Enn eg tala um þad rettlæte fyrer Gude, hvert ad kemur fyrer trúna á Jesum Christum, til allra, og yfer alla þá, sem trúa, þvi her er eingenn greinarmunur.

23. Allersaman eru þeir syndugar, og þeim er skortur á þeirre hrósan, sem þeir áttu á Gude at hafa.

24. Og verda svo útaf hans nád, án verdskulldunar rettlæter, fyrer þá endurlausn, sem ordenn er fyrer Jesum Christum.

25. Hvern Gud skickade til eins nádarstóls, fyrer trúna í hans blóde, hvar med hann frammbydur þad rettlæte, sem fyrer hønum er fullt, í þvi hann fyrergefur syndernar, sem hingat til verid hafa under gudlegre þolinmæde.

26. At hann á þessum tíma frammbydur þad rettlæte, sem fyrer hønum duger, uppá þad, at hann se alleina rettlátur, og gere þann rettlátann, sem trúna hefir á Jesum.

27. Hvar er nú sú hrósan? hún er úte; fyrer hvert løgmál? fyrer verkanna løgmál? ecke svo, helldur fyrer trúarennar løgmál.

28. Svo hølldum ver nú, at madurenn verde rettlátur án løgmálsins verka, fyrer trúna alleina.

29. Eda er Gud alleina Gud Gydinga? er hann eigi og svo Gud heidinna manna? at vísu er hann og Gud heidinga.

30. Nú þviat hann er einn Gud, sá sem umskurnena rettlæter af trúnne, og yferhúdena fyrer trúna?

31. Gerum ver þá løgmaled at engu fyrer trúna? fiærre se þvi, helldur uppreisum ver løgmáled.

## 4. Capitule.

1. Hvad segum ver þá af fødur vorum Abraham, at hann hafe funded efter holldenu? þad segum ver:

2. Ef Abraham er af verkunum rettlátur, þá hefir hann løfstyr, enn eigi fyrer Gude.

3. Enn hvad seger ritningenn? Abraham trúde Gude, og þad er hønum reiknad til rettlætis.

4. Þvi þeim sem erfida, verda launenn eigi af nádenne tilreiknud, helldur af verdskulldan.

5. Enn hønum, sem eigi erfidar, enn trúer á þann, sem rettlæter ranglatann, þeim verdur sín trú reiknud til rettlætis.

6. Efter þvi móte sem David seger, at sáluhialpen se alleina þess manns, hverum Gud tilreiknar rettlætid, án verkanna, þar hann seger:

7. Sæler eru þeir, hverum sínar ranglætingar eru fyrergefnar, og hverum sínar synder eru huldar.

8. Sæll er sá madur, hverum Gud tilreiknar eigi syndena.

9. Ná þesse farsælld, snerter hún einasta umskurnena, eda yferhúdena? þvi ver hiótum at sega, at Abraham se sin trú til rettlætis reiknud.

10. Enn hvernin er hún honum þá tilreiknud, í umskurnenne, eda í yferhúdenne? án efa, eigi í umskurnenne, helldur í yferhúdenne.

11. Enn þad teikn í umskurnenne, medtók hann til innsiglis þeirs rettlætis, sem er í trúnne, hvera hann hafdi enn nú í yferhúdinne, svo at hann yrde og fader allra þeirra, sem trúa í yferhúdinne, svo at þeim yrde og slíkt reiknad til rettlætis.

12. Og þad, at hann yrde einnenn fader umskurnarinnar, eigi einasta þeirra, sem af umskurninne eru, helldur iafnvel þeirra, sem ganga í fótsporum þeirrar trúar, sem var í yferhúd fødur vors Abrahams.

13. Þvi þad fyrerheit, at hann skyllde veralldarinnar erfinge verda, skede eigi til Abrahams edur hans sædis, fyrer løgmalid, helldur fyrer trúarinnar rettlæte.

14. Þvi ef þeir af løgmalenu eru erfingar, þá er trúinn einskis verd, og fyrerheitid er ete.

15. Af þvi, at løgmalid afrekar eigi annad enn reide; þvi hvar ecke løgmal er, þad er og eingin yferstrodsla.

16. Þar fyrer kemur rettlætid fyrer trúna, svo at þad se útaf nadinne: og þad fyrerheit blifur stødugt ollu sædi, eige einasta þvi, sem under løgmalenu er, helldur þvi sem ec af Abrahams trú, hann sem er allra vor fader.

17. Efter þvi sem skrifad er: Þig hefe eg settann til fødurs margra heidinga, fyrer Gude, hverum þú trúder, sá er af dauda lifger, og kallar þad sem ecke er, at þad skule vera.

18. Og hann trúde uppá von, þar sem einskis var at vona, svo at hann yrde fader margra heidinga, efter þvi sem til hans er sagt: svo skal þitt sæde vera.

19. Enn hann var eigi veikur í trúnne, gaf og eigi gaum at sínum egenn líkama, þeim dáinn var þá þegar, af þvi at hann var at mestu hundrad ára, og eigi at daudum líkama Saru.

20. Þvi hann efade eigi Guds fyrerheit, vegna vantrúarinnar, helldur vard hann sterkur í trúnne, gefande Gude dyrdena.

21. Vitande þad fyrer vissu, at hvad Gud lofade, þad var hann mattugur at gera.

22. Fyrer þvi var honum þad reiknad til rettlætis.

23. Enn þad er eigi einasta skrifad fyrer hans saker, at þad se honum tilreiknad.

24. Helldur fyrer vorar saker, þeim þad skal tilreiknad verda, ver sem trúum á þann, sem Drottinn vorn Jesum uppvakde af dauda.

25. Sá er fyrer vorar synder var ofurselldur, og fyrer vors rettlætis saker uppvaktur.

## 5. Capitule.

1. Med þvi ver erum nú rettláter ordner, fyrer trúna, þá høfum ver frid vid Gud, fyrer Drottinn Jesum Christum.

2. Fyrer hvern ver høfum og tilgøngu atrúnna til þessarar nádar, þar ver inne stondum, og hró-

sum oss af von Feirrar tilkomande byrdar, sem Gud mun gefa.

3. Enn eige einasta Pad, helldur hrósum ver oss einninn líka af hörmungum, af Þvi ver vitum, at hörmung verkar Þólinnmæde.

4. Enn Þolinmæde verkar reynslu, enn reynsla verkar von.

5. Enn vonen lætur eige til skammar verda, Þviat Guds kærleike er úthelltur í vor hiörtu, fyrer Heilagann anda, sá oss er gefinn.

6. Þviat Þá ver vorum enn breifkieger efter tímans hentugleika, hefir Christur fyrer oss ranglata dáid.

7. Enn nú deyr varla nockur fyrer Þad rettláta: fyrer nockud Godt má ske nockur dæe.

8. Fyrer Þad prísar Gud sinn kærleika vid oss í Þvi, at Christur hefir fyrer oss dáid, Þá Þegar ver vorum enn syndugar.

9. Fyrer Þad verdum ver og miklu meir geymder frá reidinne, fyrer siálfann hann, af Þvi ver erum rettláter ordner í hans blóde.

10. Þvi ef ver erum nú vid Gud forliktir fyrer hans sonar dauda, Þá ver vorum enn óvíner, miklu meir verdum ver sáluhólpner fyrer hans líf, sem nú erum sátter.

11. Enn eigi alleinasta Þetta, helldur Þá hrósum ver oss og af Gude, fyrer Drottinn vorn Jesum Christum, fyrer hvern ver höfum forlíkun medtekeð.

12. Fyrer Þvi, líka svo sem syndin er fyrer einn mann komin í heiminn, og daudenn fyrer syndina, svo hefir daudenn og til all ra manna ser innþreyngt, af Þvi, at aller hafa syndgad.

13. Þviat syndin var at sönnu í heimenum, allt til Þess lögmálid kom: enn hvar eigi er lögmál, Þar verdur og engi synd tilreiknud.

14. Enn dauden drottnade frá Adam allt til Moysen, og einnenn yfer Þeim, sem ecke höfdu syndgad med Þvilíkre yfertrædslu sem Adam, hann sem er ein fyrermyndan, Þeis sem koma átte.

15. Enn Þad var eigi svo farid med giöfenne, sem med syndenne, Þvi ef marger dóu í eins manns synd, Þá er miklu meir Guds náð og gáfa ríkuglega sked mörgum fyrer Jesum Christum, sem var sá einaste madur í nádinne.

16. Og gáfan er eigi svo sem Þad, hvad kom fyrer Þann einasta syndara; Þviat dómurenn er komenn af einnre synd til fordæmingar, enn gáfan hiálpar frá mörgum syndum til rettlætis.

17. Þvi ef daudenn ríkte vegna einnrar syndar fyrer einn, miklu meir munu Þeir sem ödlast nádarennar og gáfunnar yferflióanlega nægd til rettlætesins, ríkia í lífenu fyrer Þann eina Jesum Christum.

18. Líka sem nú fordæmingenn er komenn fyrer eins manns synd, yfer alla menn, svo er og komid fyrer eins rettlæte, lífs rettlæted, yfer alla menn.

19. Þviat, líka sem fyrer eins manns óhlydne eru marger syndugar ordner, svo verda og fyrer eins hlydne margir rettláter.

20. Enn lögmaled er Þó heldt í millum innkomed, svo at syndenn skyldde meir yfergnæfa: enn hvar syndenn yfergnæfer, Þar yfergnæfer nádenn enn miklu framar.

21. Uppá þat, at líka sem syndenn ríkte til daudans, svo skal og nádenn ríkia fyrer rettlætid, til eylífs lífs, fyrer Jesum Christum vorn Drottenn.

## 6. Capitule.

1. Hvad vilum ver her til sega? skulum ver þá í syndenne blífa, svo at nádinn mege þess meir yfergnæfa?

2. Fiærre se því; hvernenn skyldum ver þad vilia, at lífa í syndenne, sem dauder erum frá henne?

3. Vited þer eige, at aller ver, sem skírder erum í Jesu Christo, at ver erum í hans dauda skírder?

4. Því erum ver og einnenn med honum greftrader, fyrer skírnena, í daudann, uppá þat, at líka sem Christur er uppvakenn frá daudum, fyrer dyrd födursins, líka svo skulum ver gánga í einu nyu líferne.

5. Því fyrst ver erum med honum plantader til líks dauda, þá munum ver og upprisunne liker verda.

6. Med því ver vitum þad, at vor gamle madur er med honum krossfestur, svo at sá syndugе líkame afïete, at ver þiónudum eigi syndenne efter þad.

7. Þviat, hver sem deyddur er, hann er rettlætтur frá syndenne.

8. Enn fyrst ver erum med Christo dauder, þá trúum ver, at ver munum og med honum lifa.

9. Enn ver vitum, at Christur, sem er uppvakenn af dauda, deyr eigi framarmeir, daudenn mun og eigi framarmeir drottna yfer honum.

10. Því at hann dó, þá er hann eitt sinn fyrer syndena dáenn: enn at hann lifer, þá lifer hann Gude.

11. Svo og líka þer. Halldeð ydur þar fyrer, at þer seud og deydder frá syndinne, enn lifed Gude í Drottne vorum Jesu Christo.

12. Fyrer því láted nú syndena eigi drottna í ydrum daudlegum líkama, svo at þer seud henne hlíduger í hennar girndum.

13. Og láted eigi ydra limu syndenne til ránglætis verkfæda, helldur láted ydur siálfa Gudi, líka sem af dauda upplifnada, og ydra limu Gude til rettlætis vervopna.

14. Þviat syndenn mun eigi kunna at drottna yfer ydur, med því, at þer erud eigi under lögmalenu, helldur under nádenne.

15. Hvernenn nú? skulum ver synder drygia, med því ver erum eigi under lögmálenu, helldur under nádenne? fiærre se því.

16. Vitid þer eigi, at hverum sem þer gefid ydur til þiónustumanna, í hlídne, hans þiónar erud þer, hverum þer hlyduger erud, hvert þad er syndenne til daudans, edur hlydnenne til rettlætis?

17. Enn Gude seu þacker, at þer vorud syndarennar þiónustumenn, enn nú hlyduger ordner af hiarta, efter því lærdómsforme og máta, sem þer erud tilgefner.

18. Því fyrst þer erud frelsader af syndinne, þá erud þer ordner réttlætesins þiónustumenn.

19. Eg hlyt nú mannlega her af at sega fyrer ydars holldz

breisEleika saker, líka sem þer hafið ydra limu leð til at þióna óhreinleikanum, og frá ødru ránglæte til annars, líka svo skulud þer nú liá ydra limu, til at þióna rettlætenu, svo þer meged verda heilager.

20. Þvi þá þer vorud þiónustumenn syndarennar, vorud þer frier fyrer rettlætenu.

21. Hvern ávøxt høfdud þer þann tima, þan þer skammest ydar nú fyrer, þviat ending þess er daudenn.

22. Enn nú, þer erud frelsader af syndenne, og ordner Guds þiónustumenn, hafed þer ydarn ávøxt, at þer verded heilager, og ending þad eylifa lif.

23. Þviat verdlaun syndarennar er daudenn, enn Guds giøf er eylift lif, i Drottine vorum Jésu Christo.

## 7. Capitule.

1. Vited þer eigi kærer brædur, þvi vid þá tala eg, sem løgmaled vita, þad at løgmaled drottnar yfer mannenum, svo lenge hann lifer.

2. Þviat ein kvinna, sem manne er undergefinn, hún er, at mannenum lifanda, bundinn vid løgmáled; enn ef madurinn deyr, þá er hún laus af þvi løgmále, sem manninn áhrærer.

3. Nú ef hún er hiá ødrum manne at mannenum lifanda, verdur hún hórkona kollud: enn ef hennar madur deyr, þá er hún frelsud af løgmálenu, svo at hún er eigi hórkona, þó hún se hiá ødrum manne.

4. Líka svo erud þer, brædur míner, deydder frá løgmalenu, fyrer Christs likama, svo at þer send hiá einum ødrum, sem er hiá þeim, sem ef dauda er uppvakenn, uppá þad, ar ver færum Gude ávøxt.

5. Þvi þá ver vorum i holldenu, voru syndsamlegar gyrnder i holldenu, þær ser dreifdu upp fyrer løgmaled i vorum limum, kroftugann daudanum ávøxt at færa.

6. Enn nú erum ver lauser af løgmalenu, og frá þvi deydder, sem oss hellt hertekna, svo at ver þiónum i nyung andans, enn ecke i fornre veru bokstafsins.

7. Hvad vilum ver þá sega? er løgmaled synd? fiærre se þvi. Helldur þad, at eg þeckte eigi syndena, nema fyrer løgmaled. Þvi eg visse ecke af þeirre gyrnd, hefde løgmaled eigi sagt: eigi skallt þú gyrnast.

8. Þá tók synden tilefne af bodordenu, og ól upp i mer allsháttadar gyrnder. Þviat án løgmalsins var synden daud.

9. Enn eg lifdi nockora stund án løgmals: enn þá bodorded kom, endurlifnade synden aftur.

10. Enn eg deyddest. Og þad vard sanned, at þad bodord vard mer at dauda, sem mer var þó til lifsins gefid.

11. Þviat syndenn tók tilefne af bodordenu, tælde mig, og deydde fyrer þad sama bodord.

12. Svo er løgmaled heilagt. Bodorded er og heilagt, rett og gott.

13. Er þá þad, sem gott er, mer at dauda orded? fiærre se þvi. Helldur svo, at syndenn augliysest, hvernenn hún være synd,

þá gerde hún mer dauda fyrer þad góda, svo at synden yrde yfer máta syndug, fyrer bodorded.

14. Þvi ver vitum þad, at løgmaled er andlegt, enn eg em holldlegur, undir syndena selldur.

15. Af því eg veit eigi, hvad eg gere, þviat eg gere eigi hvad eg vil, helldur hvad eg hata, þad gere eg.

16. Enn fyrst eg gere þad, hvad eg vil eigi, þá samþycke eg þad, at løgmaled se gódt.

17. Svo gere eg nú þá eigi þad sama, helldur sú synd sem med mer bygger.

18. Þvi eg veit, at í mer, þad er í mínu hollde, bygger ecke godt. Wilian hefi eg, at fullkomna þad góda, kann eg eigi.

19. Þviat þad góda, sem eg vil, gere eg eigi.

20. Helldur þad vonda, hvad eg vil eigi, þad gere eg; enn fyrst eg gere þad, hvad eg vil eigi, þá gere eg eigi þad sama, helldur sú synd sem í mer bygger.

21. Svo finn eg í mer eitt løgmal, at þá eg vil gera hid góda, lóder vid mig þad vonda.

22. Þviat mig lyster til Guds løgmals efter hinum innra manne.

23. Enn eg se þó annad løgmal í mínum limum, þad sem mótstrídet mínu hugskots løgmale, og færer mig herleiddann í syndarennar løgmál, þad sem er í mínum limum.

24. Eg vesæll madur! hver mun frelsa mig af líkama þessa dauda?

25. Eg þacka Gude fyrer Jesum Christum Drottenn vorn: svo þióna eg nú med hugskotenu Guds løgmale, enn med holldenu syndarennar løgmale.

## 8. Capitule.

1. Svo er nú ecke fordæmanlegt í þeim, sem í Jesu Christo eru, þeir sem eigi ganga efter holldenu, helldur efter andanum.

2. Þviat løgmal þess anda, sem oss lífgar í Christo Jesu, hefir gert mig friálsann af løgmale syndarennar og daudans.

3. Þvi hvad løgmalenu var ómøgulegt med þvi þad veiktest fyrer hollded, þad gerde Gud, og sende sinn son í asynd syndugs holldz, og fordæmde syndena í holldenu, fyrer syndena.

4. Svo at retlætingenn, sem løgmaled heimte, uppfylldest í oss, sem eigi gengum efter holldenu, helldur efter andanum.

5. Þviat þeir sem holldleger eru, eru holldlega sinnader, enn hiner, sem andleger eru, þeir eru andlega sinnader.

6. Enn holldlega at vera sinnadur er daude; enn at vera andlega sinnadur er líf og fridur.

7. Þviat holldlega at vera sinnadur er fiandskapur gegn Gude, af þvi at þad er eigi Guds løgmale undervorpid, þad cær þess og eigi orkad.

8. Svo geta eigi þeir sem holldleger eru, Gude þócknast.

9. Enn þer erud eige holldleger, helldur andleger, svo framarlega Guds ande bygger í ydur; enn hver hann hefir eigi Christi anda, sá er eigi hans.

10. Enn ef Christur er í ydur, þá er likamenn at sönnu daudur syndarennar vegna, enn andenn er lifed fyrer rettlætingar saker.

11. Þvi ef hans ande, sem Jesum uppvakde af dauda, bygger í ydar, þá mun eg sá same, sem Christum uppvakte af dauda, og ydra daudlega likáme lifande gera, fyrer hans anda, sem í ydur byr.

12. Þar fyrer erum ver, kærer brædur, nú eigi holldsins skulldanautar, at ver skylldum efter holdenu lifa.

13. Þvi ef þer lifed efter holldenu, munud þer deya, enn ef þer deyded fyrer andann holldsins gerder, munud þer lifa.

14. Þvi þeir, hvera Guds ande leider, þeir eru Guds börn.

15. Þvi þer hafid eigi medtiked þrældoms anda, svo þer þurfed aptur at ugga um ydur, helldur hafed þer medteked einn óskabarna anda, fyrer hvern ver köllum: Abba elskulegi fader.

16. Sá same ande ber vitnis burd med vorum anda, at ver erum Guds börn.

17. Enn fyrst ver erum börn, svo erum ver og erfingar, þad er Guds erfingar og samarfar Christi, ef ver lidum annars med honum, uppá þat, at ver verdum einnenn med honum upphafder til dyrdarennar.

18. Þviat eg helld þad svo, at mótlæting þessara tíma, se ecke verd þeirrar dyrdar, sem vid oss mun opinberud verda.

19. Þviat ábyggiusamelgt efterbid skepnunner, bidur efter opinberann Guds barna.

20. Med þvi þó, at skepnan er hegomanum undergefinn, án hennar vila, helldur fyrer hans saker, sem hana hefir underlagt.

21. Uppá vonina, þviat skepnan mun og frelsud verda, af þrælkan forgengelegrar veru, til dyrdarlegs frelsis Guds barna.

22. Þvi ver vitum at allar skepnur hafa forlenging med oss, og bera einn iafnann kvida.

23. Eigi alleinasta þær, helldur ver sialfer, sem höfum andans frumvert, oss forlenger med oss sialfum efter óskabarna rettenum, og væntum efter lausn vors likama.

24. Þviat ver erum sáluhiálpleger, enn þó í voninne, þvi sú von sem sest, er eigi von, eda hversu kunnum ver þess at vona, sem ver siáum?

25. Enn ef ver vonum á þad, sem ver siáum eige, þá bidum ver þess med þolinnmæde.

26. Svo hiálpar og andenn lika vorum breiskleik, þviat ver vitum ecke, hvad ver skulum bidia, sem þad byriade, helldur bidur andenn fyrer oss med ósumrædanlegre andvarpan.

27. Enn hann sem hiörtun rannsakar, veit hvad andans meining er, þviat hann bidur fyrer Heilögum, efter þvi sem Gude hagar.

28. Enn ver vitum, at þeim, sem Gud elska, þeua aller hluter til hins bedsta, þeim sem efter fyrerhyggiunne kallader eru.

29. Þviat hvera hann hefir ádur fyrerhugada, þá hefir hann og tilskickad, at þeir skylldu verda samliker hans sonar ímind, svo at hann sialfur se frumgetningur medal margra brædra.

30. Enn hvera hann hefir fyrerhugada, þá hefir hann og kallad, enn hvera hann hefir kallad, þá

hefir hann og retláta gert, enn hvera hann hefir rettlætta, þá hefir hann og dyrdlega gert.

31. Hvad vilum ver þá framar sega? er Gud med oss, hver kann þá vera á móte oss?

32. Hver eigi þirmde sínum eginnlegum syne, helldur gaf hann út fyrer oss alla, hvernen skylde hann þá eige gefa oss alla hlute med hønum?

33. Hver vill ásaka Guds útvalda? Gud er sá, sem rettlæter.

34. Hver er hann sem fordæmer? Christur er sá, sem dáid hefir, já miklu helldur, sá sem upp aftur er vakenn, hann sem er til hægre handar Gude, og bidur fyrer oss.

35. Hver vill oss skilja vid Guds elsku? hørmung eda mótlæte? offókn eda húngur? klædleyse eda háske? eda sverd?

36. Svo sem skrifad er: fyrer þig verdum ver deyddir allann dag, og erum reiknader sem saudar til dráps ætlader.

37. Enn í øllu þessu høfum ver sigur vegna hans, sem oss elskade.

38. Þviat eg em þess fullvissadur, at hverke daude ne lif, hverke engell ne høfdingastetter, eda magt, hverke hid nálæga ne hid ókomna.

39. Eige hæd, eda dypt, ne nockur ønnur skepna, fær oss skilid frá Guds kærleika, hann sem er í Drottne vorum Jesu Christo.

## 9. Capitule.

1. Eg sege sannleik í Christo, og lyg eige, þess mer ber vitne min samvitska, í Heiløgum anda.

2. At eg hefe án aflàts stórann harm, og hriggd í minu hiarta.

3. Eg hefe æskt mer, at vera bølvadur frá Christo fyrer mína brædur, hverer eru míner frændur efter holldenu.

4. Sem eru af Israel, hverum óskabarna rettur til heyrer, og svo vegsemd, sattmále og løgmál, Guds þiónusta og fyrerheit.

5. Hverra fedur eru og þeir, sem Christur er útaf komenn efter holldenu, sá sem er Gud yfer øllum hlutum, blessadur at eylífu, amen.

6. Enn þad er ómøgulegt at Guds ord hafe brigdul verid. Þviat þeir eru eige aller Israels menn, sem af Israel eru.

7. Og eige aller þeir børn, sem af Abrahams sæde eru, helldur skal þer í Isaac þad sæde nefnt verda.

8. Þad er, þeir eru eigi aller Guds børn, sem efter holldenu eru børn, helldur verda þeir sem eru fyrerheitesins børn, fyrer sád reiknader.

9. Þviat þetta er fyrerheitis ordid, þar hann seger: á þeim tíma mun eg koma, og þá skal Sara son hafa.

10. Þessu er eigi alleinasta svo háttad um hana, helldur og þá Rebecca var þungud, af þeim eina fødur vorum Isaac.

11. Adur enn børnenn voru fædd, og þau høfdu gert hverke godt ne vondt, svo at Guds fyrerhyggia stødug stæde efter útvalningunne.

12. Eigi útaf verdskulldan verka helldur útaf nád þess sem kallade, þá var sagt til hennar:

þinn meire skal þióna þeim minna.

13. Efter þvi sem skrifad stendur: Jacob elskade eg, enn Esau hafde eg at hatre.

14. Hvad vilum ver þá her til sega? er Gud þá ránglátur? langt se frá þvi.

15. Þvi hann seger til Moysen: hvern eg náda, þeim em eg nádugur, og hverum eg miskuna, þeim em eg miskunsamur.

16. Þvi er þad eigi komid under nockurs vila, edur tilhlaupe, helldur under Guds miskunseme.

17. Þvi ritningenn seger til Pharao: til þess uppvakde eg þig, at eg synde mína magt á þer, svo at mitt nafn kunngerist um øll lønd.

18. Svo miskunar hann nú þeim hann vill, og forherder þann hann vill.

19. Svo seger þú til mín: hvera skulld gefur hann oss þá? þvi hver sær hans vila móte staded?

20. Já, gódur madur, hver ert þú þá, at þú villt ganga í lagaþrætu vid Gud? seger nockud efnid svo til smidsins: hvar fyrer gerder þú mig svo?

21. Eda hefir eigi leyrkerasmidurinn valld til, út af einum mó at gera annad kerid til heidurs, enn annad til smánar?

22. Þvi þá Gud villde audsyna reidena, og kunngera sína magt, hefir hann med mikille þolinmæde umlided ker reidinnar, sem búin eru til fordæmingar.

23. Uppá þad hann synde rík dom sinnar dyrdar á kerum miskunarinnar; þau hann hefir tilbúid til dyrdarennar.

24. Hvera hann hefir og svo kallad, hverer ver erum, eigi eináusta þá sem útaf Gydingum eru helldur og einnenn út af heidingum.

25. Svo sem hann seger fyrer Hoseam: eg mun þad kalla mitt fólk, sem eige var mitt fólk, og þá mína unnustu, sem eige var mín unnusta.

26. Og þád mun verda, at í þeim stad, hvar til þeirra var sagt: þer erud eige mitt fólk, þar skulu þeir kallader verda børn lifanda Guda.

27. Enn Esaias kallar fyrer Israel: þóat tala Israels barna være sem sandur, þá mundu þó þeir sem áfgángs eru, hálpner verda.

28. Þviat þar mun ske ein førbierfun og hiálp, til rettlætis, og Drottinn mun gera þá hiálp á jørdu.

29. Og svo sem Esaias sagde ádur fyrre: nema ef Drottinn Zebaoth hefde oss sæde efterlátid, þá værum ver ordner sem Sodoma, og líka sem Gomorra.

30. Hvad vilum ver nú her til sega? þad vilum ver sega: heidingar, sem eigi hafa rettlætenu efterfylgt, hafa rettlæted høndlad, enn eg sége af þvi rettlæte, sem útaf trúnne kemur.

31. Enn Israel hefir efter løgmálsins rettlæte stundad, og hefir þó eige komist at løgmálsins rettlæte.

32. Hvar fyrer? Þviat þeir hafa eige leitad þess af trúnne, helldur svo sem af løgmálsins verkum; þviat þeir hafa rekid sig á þann ásteitingar stein.

33. Efter því sem skrifad er: Siáed, at eg set í Zion einn ásteitingar stein, og hneixlunar hellu, og hver hann trúer á hann, sá skal eige at hneixlan verda.

## 10. Capitule.

1. Kærer brædur, þad er ósk míns hiarta, og grátleg bæn til Guds fyrer Israel, at þeir hiálpadust.

2. Þvi eg ber þeim vitne, at þeir vandlæta um Gud, enn eigi med skynseme.

3. Þviat þeir þeckia eige þad rettlæte sem fyrer Gude gilder, og leita vid upp at retta sínar egenlegar rettlætingar, og eru svo þvi rettlæte sem fyrer Gude duger, eige undergefner.

4. Þviat endalok lögmálsins er Christur; hver sem á hann truer, sá er rettlátur.

5. Moyses skrifar at sönnu um þad rettlæte, sem kemur af lögmálenu: hver sá madur sem þad gerer, hann mun lífa þar inne.

6. Enn þad rettlæte sem af trúnne kemur, seger svo: seg þú eigi í þínu hiarta: hver vill uppstíga í himinenn? þad er eige annad, enn Christum nidur híng at at sæka.

7. Eda hver vill nidur stíga í undirdiúpid? (þad er eigi annad enn Christum frá dauda aftur at sæka).

8. Enn hvad seger hún? ordid er þer nálægt, sem er í þínum munne og í þínu hiarta. Þetta er truarinnar ord, hvert vær predikum.

9. Þvi ef þú vidurkenner Jesum med þínum munne, at hann se Drottenn, og trúer í þínu hiarta, at Gud hafe uppvaked hann af dauda, þá muntþú hiálpast.

10. Þvi ef menn trúa af hiarta, verda menn rettláter, og ef menn vidurkenna med munninum, verda menn hiálpleger.

11. Þvi ritningenn seger: hver á hann trúer, sá mun eige verda til skammar.

12. Her er einginn greinarmunur millum Gydinga og Gricka, þeir hafa aller einn Drottenn, sem er ríkur yfer öllum þeim, hann ákalla.

13. Þvi hver hann ákallar nafn Drottens, sá mun hólpenn verda.

14. Enn hvernen skulu þeir kalla á þann, á hvern þeir trúa eige? enn hvernen skulu þeir trúa á þann, af hverum þeir hafa ecki heyrt? enn hvernin skulu þeir heyra án predikara?

15. Eda hvernen skulu þeir meiga predika, nema þeir seu sender? svo sem skrifad er: hversu fríder eru fætur þeirra, sem fridinn boda, þeir sem boda hid góda.

16. Enn þeir eru þó eigi aller gudspiallenu hlyduger, þvi Esaias seger: Drottinn! hver trúer vorre predikan?

17. Fyrer þvi kemur trúenn útaf predikun, enn predikun fyrer Guds ord.

18. Enn eg sege: hafa þeir eige heyrt þad? sannlega er þeirra hliómur nur öll lönd útgenginn, og þeirra ord um alla veröld.

19. Enn eg sege: hefir Israel eige heyrt þad? í fyrstu seger Moyses: eg mun æsa ydur upp

til vandlætingar yfer Þeim, sem eigi eru mitt fólk, og yfer skynlausre Þióð, mun eg erta ydur til reide.

20. Enn Esaias Þorer vel svo at sega: eg em af Þeim fundinn, sem eigi hafa min leitad, og Þeim áuglystur, sem eige hafa at mer spurt.

21. Enn til Israels seger hann: allann dag hefi eg minar hendur útbreidt, til fólks Þessa, sem eigi vill áhlyda, og mótmæler.

## 11. Capitule.

1. Svo sege eg nú: hvert hefir Gud Þá sitt fólk frá ser reked? fiærre se Því, Þviat eg em og Israels madur, útaf Abrahams sæde Beniamins.

2. Gud hefir eige sitt fólk frá ser reked, Þad hann hefir ádur fyrerhugad.

3. Eda vited Þer eigi hvad ritningen seger af Elia? hvernin hann geck framm fyrer Gud, gegn Israel, og sagde: Drottenn! spámenn Þína hafa Þeir ihel slegid, og Þin olturu uppgrafed, og eg em einn efterblifenn, og Þeir umsitia mitt lif.

4. Enn hvad seger honum Gudlegt andsuar? siö Þúsunder manna hefi eg láted mer efterblífa, Þeir sem eigi hafa beygt sin kne fyrer Baal.

5. Svo gengur Þad nú og til á Þessum tímum, med Þessum, sem efter eru ordner efter útvalningu nádarinnar.

6. Enn fyrst Þad er útaf náddenne skeh, Þá er Þad ecke af verkenna forÞenustu, annars være náden eingin nád: enn se Þad nádenn ecke, ellegar være verdskulldanen eingin verdskulldan.

7. Hvernin Þá? hvad Israel efterleitar, Þad hefir hann eige ödlest, enn útvalningin ödladest Þad, enn Þeir adrer eru forherdter.

8. Efter Því sem skrifad er: Gud gaf Þeim einn Þverúdar anda, og augu at Þeir siái ecke, og eyru at Þeir heyra ecke, allt til Þessa dags.

9. Og David seger: Þeirra bord lát Þeim verda at snöru, og til fiötrunar og hneixla, og Þeim til endurgialldz.

10. Forblindist Þeirra augu, svo Þeir siáe ecke, og beyg alltid Þeirra hrigg.

11. Svo sege eg nú: hafa Þeir Þar fyrer rekid sig á, at Þeir skylldu vera vandláter efter Þeim.

12. Því ef Þeirra fall er heimsins audlegd, og Þeirra skade heidinna manna ríkdómur, hversu mikid meir være Þad, ef Þeirra tala full yrde?

13. Vid ydur heidinga tala eg: med Því eg em postule heidinna manna, vil eg mitt embætte heidra.

14. Ef eg gæti hvatt Þá sem mitt hold eru, til vandlætingar, og nockra af Þeim hiálplega gert.

15. Því ef Þeirra glatan er heimsins forlíkun, hvad være Þad annat, enn at taka lífed frá Þeim dauda?

16. Því ef sá fyrste afgróde er heilagur, Þá er og efnid heilagt, og ef róten er helög, Þá eru og kvisternet heilager.

17. Enn Þó nockrer af kvistunum sen afbrotner, og Þú sem

þarst villur vidsmörs vidur, ert á millum þeirra innplantadur, og ert ordin hluttakare oliutresins rótar, og vökva.

18. Fyrer því skalltþú eige hrósa þer gegn kvistunum; enn ef þú hrósar þer gegn þeim, þá matt þú vita, at þá ber eige rótena, helldur róten þig.

19. Þú seger svo: kvisterner eru því afbrotner, at eg yrde innplantadur.

20. Þad er vel sagt; fyrer sinnar vantrúar saker eru þeir afbrotner, enn þú stendur fyrer trúna: vert þú eige metnugur, helldur óttasslegenn.

21. Þviat ef Gud hefir eige þirmt nátturlegum kvistum, verda má, at hann þirme þer eige helldur.

22. Þar fyrer siá þú gódgyrne Guds og alvöru; alvöru á þeim sem fallner eru, enn gódgyrne á þer, ef þú stödugur blífur í gódgyrne, ellegar verdur þú og eitnen afhöuggvenn.

23. Og hiner adrer, ef þeir blífa eige í vantrúnne, þá verda þeir innplantader, þviat Gud er mátlugur til at innplanuta þá aftur.

24. Þviat se þú höggvinn af því oliutre, sem af nátturunne var villevidur, og móte nátturunne er innplantadur á hin gótu vidsmörs tre, miklu framar munu þeir þá, sem efter nátturunne eru, innplantast sínum eigenn vidsmörs vidi.

25. Eg vil eige dylia fyrer ydur kærer brædur, þennann leyndar dóm, svo at þer seud eige metnadarfuller: forherding er komen yfer marga í Israel, þángat til tala heidingianna er inn komenn.

26. Og allur Israel verde svo hólpenn, efter því sem skrifad er: út af Sion mun koma sá, sem frelsar, og umsnyr ógudlegu athæfe frá Jacob.

27. Og þetta er mitt testament vid þá, nær eg burt tek þeirra synder.

28. Efter evangelio eru þeir óviner fyrer ydrar saker. Enn efter útvalningunne elskader fyrer fedranna saker.

29. Guds giafer og kallan kunna eigi at idra hann.

30. Þviat líka svo sem þer hafed eige fordum trúat á Gud, enn nú hafed þer miskun odlast fyrer þeirra vantrú.

31. Svo hafa nú hiner og eige vilíad trúa á miskun þá, hvera þer hafed hloted, svo at þeir mættu og miskunseme odlast.

32. Þviat Gud ályktade alla under vantrúnne, uppá þad, at hann miskunade öllum.

33. O hvílik dypt audæfanna, bæde spekennar og svo Guds vidurkenningar! hversu ósinnanleger eru hans dómar, og órannsakanleger eru hans veger!

34. Þvi: hver hefir þeckt Herrans sinne? eda hver hefir hans rádgiafe vered?

35. Eda hver hefir honum nockud fyrre gefed, svo at honum mætte þad verda endurgolldet?

36. Þviat af honum, og fyrer hann, og í honum eru aller hluter; honum se dyrd at eylífu, amen.

## 12. Capitule.

1. Eg áminne ydur, kærer brædur, fyrer miskun Guds, at þer gefed ydra líkame til þess

offurs sem lifande er og heilagt, og Gude þacknæmt, hvert ad er ydar skinsamleg þiónusta.

2. Og hegded ydur eige efter þessum heime, helldur gered ydur umskiptelega med endurnyungu ydvars hugskots, svo at þer meged reyna hver se gódur, þægur og algerdur Guds vili.

3. Þviat eg sege fyrer þá nád, sem mer er gefen, hverium sem einum ydar á mille, at eingenn hallde meir af ser enn hönum ber af ser at hallda, helldur hallde hann af ser hóflega, efter þvi sem Gud hefir útskipt hverum og einum mæling trúarennar.

4. Þviat líka sem ver höfum marga limu á einum líkama, enn aller limer hafa eigi eins hegdan.

5. Líka svo erum ver marger einn líkame í Christo, enn vor á millum erum ver hver annars limur.

6. Og höfum margháttadar giafer, efter þeirre nád sem oss er gefen. Hafe nockur spádom, þá se hann trúnne líkur.

7. Hefir nockur embætte, þá gæte hann síns embættis: kenner nockur, þá vakte hann kenningunna.

8. Aminner nockur, þá hygge hann at þeirre áminningu; gefur nockur, þá gefe hann einfalldlega; stiórnar nockur, þá stiórne hann med áhyggiu; fremur og nockur miskunseme, þá gere hann hana med gódfyse.

9. Elskan se flærdarlaus; hated hid vonda, enn halldid fast á hinu góda.

10. Ydar bródurlegur kærleike se af hiarta ydar á mille: hver verde fyrre til virding at veita ödrum.

11. Vered eige láter, í því ber eiged at vinna: verid glóande í anda: hegded ydur efter tídenne.

12. Vered glader í vonenne, enn þolennmóder í hrvólenne; stadfaster í bænenne.

13. Annest naudþyrfter heilagra: kostgæfed gestrisne.

14. Blessed þá sem ydur ofsæka; blessed enn bölved eige.

15. Fagned med fagnendum, enn gróted med grátendum.

16. Vered samhuga innbyrdis; stunded eige þad, hvad hátt er, helldur hallded ydur nidur til þeirra lágu.

17. Giallded engum illt móte illu: leggid kapp a gódmennsku vid hvern mann.

18. Svo miked sem mögulegt er, þá hafid frid vid alla menn.

19. Hefned ydar eigi siálfer, miner elskulegustu, helldur gefid rúm reide Guds, þviat skrifad er: min er hefnden, eg vil endurgiallda, seger Drottinn.

20. Nú, ef óvinur þinn hungrar, þá gef hönum fædu; þyrster hann, þá gef hönum at drecka: nær þú gerer þetta, þá safnar þú glódum ellds yfer höfud honum.

21. Lát eigi hid vonda yfersttiga þig, helldur yfervinn þú hid vonda med gódu.

## 13. Capitule.

1. Hver madur se valldstiorninne undergefinn, sem yfer hönum magt hefir, þvi þar er eige nockur valldstiórn, utann af Gude; enn hvar valldstiórn er, þá er hún af Gude skickud.

2. Hver nú mótstendur valldstiornenne, sá stendur imóte Guds

slíkan, enn þeir sem móte standa, munu yfer sig taka dóms áfelle.

3. Þviat valldid er eigi gódum verkum, helldur vondum til skelfingar, enn villtþú eige óttest valldstiórnena, þá ger hvad godt er, og þú munt lofstír af henne hafa.

4. Þviat hún er Guds þenare, þer til góda; enn ef þú gerer hvad vondt er, þá máttþú óttast, þviat hún ber eige sverd ó forgefins, þviat hún er Guds þenare og einn hegnare til ströffunar þeirra sem illa gerer.

5. Svo vered nú af naudsyn undergefner, eige alleinasta hirtingarinnar vegna, helldur og líka einnen fyrer samvitskuunnar saker.

6. Þar fyrer skulud þer og skatt giallda, þviat þeir eru Guds þenarar, sem slíkar sýslur hafa.

7. Þvi gefed þad hverium sem þer skylduger erud, þeim skatt, sem skattur heyrer, þeim toll sem tollur heyrer, þeim ótta sem ótte heyrer, þeim heidur sem heidur heyrer.

8. Verid engum nockut skylldugir, nema þad þer elsked hver annann inbyrdis, þvi hver hann elskar annann, sá hefir lögmaled uppfyllt.

9. Þviat þar segest: þú skallt eigi hór drygia; eigi mann vega; eige stela; eige lIúgvitne mæla; þú skallt og eige girnast; og ef þar er nockud annad bodord framvegis, þá felst þád í þessum ordum; elska skalltþú naunga þinn sem siálfan þig.

10. Eiskann gerer náunganum ecki mein, þvi er nú elska lögmálsins uppfylling.

11. Og med því ver vitum slíkt, sem er tímenn, at tíme er upp at rísa af svefne, af því vor sáluhiálp er nú nær, helldur enn þá ver trúdum.

12. Nóttinn er umliden, enn dagurenn tekur at nálgast, leggium þvi af verk myrkranna, og íklædumst herklædum liósins.

13. Látum oss ganga sidsamliga sem á dege, eige í ofáte eda ofdrycku, eige í legukofum, og munadarlífe, eige í þrættan ne ofundsýke.

14. Helldur íklædest þer Drottne Jesu Christo, og ræked helldid, þó svo þad fremi eige sínar gyrnder.

## 14. Capitule.

1. Enn þann sem breiskur er í trúnne, þá annist hann, eige til efasamlegra samrædna.

2. Annar trúer, hann mege alls neyta, enn hinn sem breiskur er, ete hann iurter,

3. Enn hver sem etur, hann forsmáe eigi þann sem eige etur; og hann sem eige etur, dæme eige hann sem etur, þvi Gud hefir annast hann.

4. Hver ertþú sem annarlegann þión dæmer? hann stendur eda fellur sínum lavarde, enn hann fær vel vidretst aftur, þviat Gud er máttugur hann vid at retta.

5. Annar helldur meir af einum dege, enn af ödrum: hinn annar helldur alla daga iafna, hver einn vere viss sinnar meiningar.

6. Hann sem af degenum helldur, gerer þad fyrer Drottne, og hinn sem þar helldur eige af, hann gerer þad og fyrer Drottne, og hver sem etur, sá etur Drottne, þviat hann gerer Gude þacker, og

hann sem eige etur, hann etur eige Drottne, og gerer Gude þacker.

7. Þviat eingenn vor lifer siálfum ser, og eingenn deyr ser siálfum. Þvi ef ver lifum, þá lifum ver Drottne; deyum ver, þá deyum ver Drottne.

8. Þar fyrer, hvert ver lifum eda deyum, þó erum ver Drottins.

9. Þviat þar fyrer hefir Christus dáid, og upp aftur risid og endurlifnad, at hann se Drottenn yfer lifendum og daudum.

10. Enn þú, hvad dæmer þú þinn bródur? eda þú hinn annar, hvar fyrer forsmáer þú þinn bródur? þvi ver munum aller stickast fyrer Christi dómstol.

11. Efter þvi sem skrifad er: svo sannarlega sem eg lifi, seger Drottinn: mer skulu oll kne beygast, og allar túngur skulu Gud vidurkenna.

12. Þá mun og hver sem einn fyrer siálfann sig gera Gude reikningsskap.

13. Fyrer þvi látum oss nú eige framarmeir dæma hver um annann, helldur dæmed þad miklu framar, at eingenn sete neckora ásteiting edur hneixle fyrer sinn bródur.

14. Eg veit þad, og em þess fullviss í Drottne Jesu, at þar er ecke allmennelegt í siálfu ser, nema þeim sem þad reiknar fyrer allmennelegt, honum er þad allmenneligt.

15. Nú ef bróder þinn sturlast fyrer þinnar fædu saker, þá gengur þú þegar eige efter kærleikanum. Minn kære! fordiarfa eige þann med þínum mat, fyrer hvern Christur er dáinn.

16. Fyrer þvi kostid kopps á, at ydar audur verde eige lastadur.

17. Þviat Guds rike er eige matur og dryckur, hilldur rettlæte og fridur, og fognudur í Heilogum anda.

18. Hver hann þiónar Christo þar med, sá er Gude þeckur, og monnum gedfelldur.

19. Fyrer þvi látum oss stunda efter þvi, sem til fridarens þenar, og þad sem oss þenar til betrunar, á medal vor.

20. Minn kære! fordiarfa þú eigi Guds verk, fyrer matarins saker; aller hluter eru at sonnu hreiner; enn þad er honum eige godt sem þad etur med ásteitingu sinnar samvitsku.

21. Miklu betra er, at þú eter ecki kiot, og drecker ecki vín, eda þad neckud, sem þinn bróder steitter sig á, eda argast af, eda veikist vid.

22. Hafir þú trúna, þá haf hana hiá siálfum þer, fyrer Gude. Sæll er sá sem enga samvitsku gerer siálfum ser, í þvi, hann medtekur.

23. Enn hver sem efast þar um, og etur só, sá er fordæmdur, þviat þad sker eigi af trúnne. Enn hvad eigi er útaf trúnne, þad er synd.

## 15. Capitule.

1. Enn ver, sem sterkir erum, skulum umlida vanmátt þeirra sem breisker eru, og hafa eige gedþeckne á siálfum oss.

2. Og hver, sem einn vorra hegde ser svo, at hann þocknest sínum náunga í gódu, til betrunar.

3. Þviat Christur hafde eige gedþeckne á siálfum ser, helldur efter því sem skrifad er: Þeirra smáner, sem þig smádu, fellu yfer mig.

4. Enn hvad sem ádur skrifad er, þá er þad skrifad oss til lærdoms, svo at ver fyrer þolinmæde og huggun ritningarinnar hefdum vonene.

5. Enn Gud þolennmædennar og hugguuerennar gefe ydur þad, at þer seud eins sinnis ydar á mille, efter Jesu Christo.

6. Svo at þer mættud med einu samhellde, og einum munne vyrdka Gud og fódur vors Drottins Jesu Christi.

7. Þar fyrer anneſt hver annann, líka sem Christur annadeſt ydur, Gude til lofs.

8. Enn eg sege Jesum Christum verid hafa þiónustumann umskurnarinnar, fyrer Guds sannleika saker, til stadfestu fyrerheitanna, sem til fedranna eru sked.

9. Og at heidenn lydur lofadi Gud fyrer miskunseminnar saker, efter því sem skrifad er: fyrer þad vil eg vegsama þig, medal heidinna þióda, og þínu nafne lofsyngia.

10. Og enn aftur seger hann: fagned þer heidingar med hans fólke.

11. Og enn aftur: lofed þer Drottenn aller heidingar, og mikle hann allur lydur.

12. Og enn aftur seger Esaias: þad skal vera rót Jesse, og hann sem uppríſa mun, til at stiórna heidnum þiódum; á hann munu heidner menn vona.

13. Enn Gud vonarinnar fylle ydur med ollum fagnade og fride í trúnne, svo at þer hafid gnógliga von fyrer kraft Heilags anda.

14. Enn eg em fullvís um ydur, brædur míner, at þer siálfer erud fuller gódgyrne, uppfyllter af ollum skilninge, svo at þer geted áminnt hver annann.

15. Enn eg dirfdeſt eigi at skrifa ydur nockud til at skrifa, brædur míner, og ydur at áminna, vegna þeirrar nádar, sem mer er af Gude gefin.

16. At eg skule vera Christs þenare, medal heidinna þióda, til at offra Guds evangelium, svo at heidinn lydur yrde Gude þægelegt offur, helgat fyrer Heilagann anda.

17. Þar fyrer get eg hrósad mer í Christo Jesu, at eg þióni Gude.

18. Þviat eg dirfdeſt eigi nockud at tala, þad Christur eigi hefde gert fyrer mig, at koma heidinne þiód til hlydnennar, fyrer ord og gerder.

19. Fyrer kraft tákna og stórmerka, og fyrer mátt Guds anda, svo at eg hefi frá Jerusalem, allt umkríng, inn til Illyricum, uppfyllt allt med Christi evangelio.

20. Og serdeilis lagt kapp á at predika Gudspialled þar, hvar nafn Christs var eige kunnugt, svo at eg byggde eige yfer annarlegum grundvelle.

21. Helldur efter því sem skrifad er: þeim sem ecke var af honum bodad, þeir skulu þad siá, og þeir sem þad hafa eige heyrt, þeir skulu þad skilia.

22. Þetta er tilefned, hvers mer hefir oftsinnis tálmad til ydar at koma.

23. Og fyrst eg hefe nú eige rúm meir í þessum londum, enn

eg hefe þó haft efterlángan um mörg ár at koma til ydar, þá vil eg koma til ydar.

24. Þá eg reise til Spanialands, þviat eg vænte, at eg mune reisa þar um og siá ydur oz af ydur þángat leiddur verda, þó svo, at eg take ádur hvild hiá ydur, um stundar saker.

25. Enn nú reisi eg til Jerusalem, þeim heilögu til þenustu.

26. Þvi þeir af Macedonia og Achaia hafa velviliuglega sammenskoted nockurn almennelegann peningastirk, þeim fátæku heilögum, sem eru í Jerusalem.

27. Þad hafa þeir viliuglega gert, þeir eru og þessara skulldamenn, þvi syrst hiner heidnu eru hluttakarar vordner þeirra andlegra audæfa, þá er þad skylda at þeir þyndu þeim adstod, í líkamlegum audæfum.

28. Enn nær eg hefe þetta framm kvæmt, og innsiglad þeim þann ávöxt, mun eg ferdast fram um hiá ydur til Spaniakands.

29. Enn eg veit nær eg kem til ydar, at eg mun koma med fullre blessan Christs evangelii.

30. Enn eg beide ydur, brædur miner, fyrer vorn Drottinn Jesum Christum, og fyrer kærleika andans, at þer hiálped mer til at strída, í ydrum bænum fyrer mer til Guds.

31. Svo at eg frelsist frá þeim vantrúudum sem á Gydingalande eru, og at mín þionusta, sem eg gere til Jerusalem, verde þeim heilögu þacknæm.

32. Svo at eg mætte fyrer Guds vila til ydar koma med fagnade, og endurnæra mig med ydur.

33. Enn Gud fridarins se med öllum ydur, Amen.

## 16. Capitule.

1. Vora systur Phebem fel eg ydur á hendur, hún sem er þionustukvinna safnadarins í Kenchrea.

2. At þer medtakit hana í Drottne, svo sem heilögum hæfer, og gered henne hiástód í hverm þvi verke, sem hún kann ydar vid at þurfa, þviat hún hefir mörgum hiástod veitt, og mer siálfum.

3. Heilsid Priscæ og Aqvilæ, mínum hiálpurum í Christo Jesu.

4. Þeir sem hafa vogad sit líf fyrer mitt líf, hverum eige alleinasta eg gere þacker, helldur allur söfnudur heidinna þióda.

5. Og heilsid þeim safnade, sem í þeirra húsi er. Heilsid Epæneto mínum elskulegum, sá sem frumvöxtur er þeirra í Achaia í Christo.

6. Heilsid Mariu, hver mikla mædu og erfide hefir haft med oss,

7. Heilsid Andronico og Juniano, mínum náfrændum og sambandingum, hverir nafnfræger postular eru, og fyrer mig voru í Christo.

8. Heilsid Ampliano mínum elskulegasta í Drottne.

9. Heilsid Urbano vorum hiálparmanne í Christo, og Stachyno mínum elskulegum.

10. Heilsid Apelli, sem reindur er í Christo. Heilsid þeim sem eru af heimile Aristobuli.

11. Heilsid og mínum frænda Herodiano, Heilsid og þeim af heimkynne Narcissi, sem eru í Drottne.

12. Heilsid Tryphena, og Tryphosa, þær sem erfidudu í Drottne. Heilsid Persidæ elskulegre, hver mikid hefir erfidad í Drottne.

13. Heilsid Ruffo hinum útvalda í Drottne, og hans módur og minne.

14. Heilsid Asyncrito og Phlegonti, Hermanno, Patrobano, Hermeni, og þeim brædrum, sem hia þeim eru.

15. Heilsid Philologo og Juliano, Nerino og systur hans, og Olympano, og øllum heilogum, sem hiá þeim eru.

16. Heilsid hver odrum ydar á mille, med heilogum kosse. Ydur heilsar Christs søfnudur.

17. Enn eg áminne ydur, góder brædur, at þer hafid gát á þeim, sem rugl og hindraner uppvekia gegn þeim lærdome, sem þer hafed lært, og snúed frá þeim sømu.

18. Þviat þess háttar menn þióna eige Drottne Jesu Christo, helldur sínum maga, og fyrer sætleg ord, og fagurlegt máltæke tæla þeir hiørtu meinlausra.

19. Þviat ydar hlydne er medal hvers manns útkomen, fyrer þad fagna eg ydar vegna, enn eg vil, at þer seud vitrer í hinu goda, og einfallder í hinu vonda.

20. Enn Gud fridarens mun innan skams nidurtroda satan under ydra fætur. Nád Drottins vors Jesu Christi se med ydur.

21. Ydur heilsär Timotheus minn medhielpare, og Lucius, og Jason, og Sosipater, míner nafrændur.

22. Eg Tertius heilsa ydur, sem þetta bref skrifade, í Drottne.

23. Ydur heilsar Gajus, minn og alls safnadarins herbergari: ydur heilsar Erastus, borgarennar fiárhirder, og Qvartus vor bróder.

24. Nád Drottins vors Jesu Christi se med ydur øllum, Amen.

25. Enn honum, sem máttugur er ydur at styrkia efter hliódan míns evangelii, og predikanar af Jesu Christo, fyrer hvera sá leyndur dómur er opinnberadur, yfer hverum frá veralldar upphafe hefir vered þagad.

26. Enn nú opinnberadur og auglystur fyrer ritningar spámannanna, efter bóde eylífs Guds, trúarinnar hlydne til upprettingar medal allra heidinna þióda.

27. Þ in sama Gude, sem alleina er vitur, se dyrd fyrer Jesum Christum at eylífu, Amen.

Ender S. Páls Pistills til Romvera.

# Hinn fyrre S. Páls Pistill til Corinthumanna.

## 1. Capitule.

1. Paulus, sem er einn kalladur postule Jesu Christi, fyrer vilia Guds, og sá broder Sosthenes.

2. Guds søfnude í Corintho, þeim helgader eru í Christo Jesu, þeim kølludum heilogum, samt øllum þeim, sem ákalla nafn Drottins vors Jesu Christi, í øllum þeirra stødum og vorum.

3. Náð og fridur, af Gudi vorum fødur, og Drottne Jesu Christo se med ydur.

4. Þacker gere eg Gude mínum iafnan ydar vegna, fyrer þá Guds náð, sem ydur er gefin í Christo Jesu.

5. At þer erud fyrer hann í øllum hlutum audgader, í øllum lærdóme og í øllum skilninge.

6. Efter þvi sem sú predikan af Christo er kroftug vorden í ydur.

7. Svo at þer hafed eingann brest í nockorre giøf, efterbídande augliśingar vors Drottens Jesu Christi.

8. Sá ydur mun stadføstum hallda allt át lokum, svo at þer seud óstraffanleger á dege Drottens vors Jesu Christi.

9. Þvi Gud er trúr, fyrer hvern þer kallader erud til samlags sonar hans Jesu Christi vors Drottens.

10. Enn eg áminne ydur, kærer brædur, fyrer nafns Drottins vors Jesu Christi, at þer hafid allersaman eina rædu, og láted eige nockora tvistran vera ydar á mille; helldur hallded fastlega til samans í einu sinne, og einne meiningu.

11. Þvi mer er svo sagt um ydur, kærer brædur, af þeim sem af Cloes heimkynne eru, at þrættan se ydar á mille.

12. Enn eg sege þar af, at sá eine sege ydar á mille: eg em Páls; sá annar: eg em Apollos; hinn þridi: eg em Cephæ; hinn fiórde: eg em Christi; hvernen?

13. Er Christur þá ísundurskiftur? er nockud Páll fyrer ydur krossfestur? eda erud þer skírder í Páls nafne?

14. Eg þacka Gude, at eg hefe engann ydar skírt, utann Crispum og Gaium.

15. Svo at eingenn kunne þad at sega, at eg hafi skírt í mínu nafne.

16. Eg skírdi og heimamenn Stephanæ, framar veit eg eige, hvert eg hefe adra skírt.

17. Þviat Christur sende mig eige til at skíra, helldur at predika evangelium, eige med ordsnilld, svo at eige yrde kross Christi at engu.

18. Þviat þetta ord af krossenum er heimska þeim, sem fortapader verda; enn oss, sem hiálpast, er þad Guds kraftur.

19. Þviþat stendur skrifad: eg vil at engu gera vísdom þeirra vísu, og skilning skynsamra vil eg burt varpa. Hvar eru þeir hygg(n)u?

20. Hvar eru þeir skriftlærdu? hvar er uveralldarþitringar? hefir Gud eige gert speke heims þessa at heimsku.

21. Med þvi heimurinn fyrer Guds vísdom þeckte eigi Gud í hans vísdóme, þócknadest Gude þad vel, fyrer fávislega predikan hiálplega at gera, þá sem þar á trúa.

22. Med þvi at Gydingar óska teikns, og Grikker spyria at speke.

23. Enn ver predikum Christ hinn krossfesta, sem er Gydingum at sønnu hneizlan, enn Grickum heimska.

24. Enn þeim, sem kallader eru, bæde Gydingum og Grickum, predikum ver Christum, Guds kraft og Guds speke.

25. Þviat Guds fávitska er vonnum hyggnare, og Guds veikleike er mønnum sterkare.

26. Alíted, góder brædur, ydra kallan, at eige eru marger spekingar efter holldenu, eigi marger vollduger, eige marger edalborner kallader.

27. Helldur þad, hvad heimskulegt er fyrer heimenum, þad hefir Gud útvaled, uppá þad at hann gere vitringa at hneixlan.

28. Og þad sem veiklegt var fyrer heimenum, þad útvalde Gud, svo at hann gerde at hneixlan þad, hvad öblugt er, og þad sem ödela var fyrer heimenum, og forsmád, þad hefir Gud útvaled, og þad sem eige er, svo hann gerde þad at engu, sem neckud er.

29. Svo at ecke holld skylldi hrósa ser fyrer honum.

30. Utaf hverum þer erud og komner í Christo Jesu, hver oss er af Gude gerdur til vísdóms, og rettlætis, og til helgunar, og til endurlausnar.

31. Svo at hver, efter þvi sem skrifad er, sem ser hrósar, sá hróse ser í Drottne.

## 2. Capitule.

1. Og eg, góder brædur, þá eg kom til ydar, kom eg eige med ordahæd, eda hárre vitsku til ydar, at boda ydur gudliga predikan.

2. Þvi eg helt mig ecke vita ydar á mille, utan alleina Jesum Christum þann hinn krossfesta.

3. Og eg var hiá ydur med veikleika, og med ugguu og ótta miklum.

4. Mín ord og mín predikan var eigi í snilldarordum mannlegrar vitsku, helldur í audsyning andans og kraftsens.

5. Svo at ydar trú skyllde fost standa, eigi á mannlegre vitsku, helldur á Guds krafte.

6. Enn þad ver rædum um, er þó speke á medal þeirra, sem algerder eru, eige þessa heims speke, og eigi þessa heims höfdinga, hverer forgánga.

7. Helldur segum ver af þeirre heimuglegre hulinne Guds speke, hvera Gud hefir skickad fyrer veralldarennar upphaf til vorrar dyrdar.

8. Hvera eingenn af þessa heims höfdingum hefir þeckt; þvi ef þeir hefdu þeckt hana, þá hefdu þeir eige krossfest Drottenn dyrdarennar.

9. Helldur efter þvi sem skrifad er: þad eigi hafa augu sed, og eige eyru heyrt, og eige í nockurs manns hiarta komid, hvad Gud hefir fyrerbúid þeim, sem hann elska.

10. Enn oss hefir Gud þad opinberad fyrer sinn anda, þvi andenn ransakar alla hluti, einnenn diúpleika Guddómsins.

11. Hver manna er sá, at vite, hvad í manenum er, utan manns sins ande, sem í honum er? svo líka veit og einginn hvad í Gude er, nema Guds ande.

12. Enn ver höfum eigi medteked þessa heims anda, helldur þann anda, sem af Gude er, svo at ver vitum hvad oss er af Gude gefed.

13. Af hveru ver og segum, eige med þeim ordum, sem mannleg vitska kann at kenna, helldur med þeim ordum, sem Heilagur ande kenner, dæmande svo andleg efne andlega.

14. Enn nátturlegur madur skyniar ecke af Guds anda, af þvi at þad er honum heimska, og hann fær þad eige þeckt, þvi þad hlytur andlega at dæmast.

15. Enn sá andlegur er, hann dæmer alla hlute, og dæmest af engum.

16. Þviat hver hefir þeckt hugskot Drottins? eda hver vill kenna honum?, enn ver höfum Christi hugskot.

## 3. Capitule.

1. Og eg, góder brædur, kunne eigi at tala vid ydur, svo sem vid andlegá, helldur svo sem vid holldlega, líka sem vid ønnur úngbørn i Christo.

2. Miólk hefi eg ydur til dryckar gefid, enn eige mat, þviat þer megnudud það eige þá, svo megned þer það enn nu eige helldur, med þvi þer erud enn holldleger.

3. Þviat á medan hatur, kíf, og tvídrægne er ydar á mille, erud þer þá eigi holldleger, og gánged efter mannlegre vísu?

4. Þviat ef sá eine seger: eg em Páls; og hinn annar: eg em Apollos; eru þeir þá eige holldleger?

5. Hver er Páll? hver er Apollo? þiónustumenn eru þeir, fyrer hvera þer erud trúader vordner, og það sama, efter þvi sem Drottinn hefir hverum einum veitt.

6. Eg plantade, Apollo vokvade, enn Gud hefir frióſgun gefid.

7. Svo er nú hverke sá nockud, sem plantar, ne hinn, sem vokvar, helldur Gud, sá sem frióſgun gefur.

8. Enn sá sem plantar, og hinn sá sem vokvar, þeir eru eitt. Enn hver einn mun sitt verdkaup ødlast, efter sínu erfide.

9. Þvi ver erum Guds samerfidismenn, þer erud Guds akurvinna, og Guds uppbygging.

10. Eg hefe út af þeirre Guds náð, sem mer er gefin, grundvollenn lagt svo sem einn hygginn húsasmidur, enn einn annar bygger þar yfer, enn hver einn hafe gát á, hvernen hann bygger þar yfer.

11. Þviat eingin fær annann grundvøll lagt, enn hann sem lagdur er, hver er Christus Jesús.

12. Enn ef nockur bygger yfer þessum grundvelli, gull, silfur, gimsteina, tre, hey, sírá.

13. Þa mun hvers eins verk opinbert verda, dagurenn mun það augliósst gera, þviat það mun med ellde opinberad verda, og hvílíkt át hvers eins verk se, þá mun elldurinn reynslu á gera.

14. Ef nockurs verk blífur, sem hann hefir þar yferbyggt, þá mun hann laun ødlast.

15. Enn hvers verk sem uppbrennur, þá mun hann skadseme lída, enn hann siálfur mun holpenn verda, þó svo líká sem það se fyrer elldenn.

16. Vited þer eigi, at þer erud Guds Mustere, og það Guds ande bygger í ydur?

17. Enn hann, sem fordiarfar Guds Mustere, hann mun Gud fordiarfa, þviat Guds Mustere er heilagt, hvert þer erud.

18. Tæle eingenn siálfann sig: nær nockur ydar á mille þykest vitur vera, verde hann at þessa heims dára, svo at hann mege vitur verda.

19. Þvíat þessa heims speke, er heimska hiá Gude, þviat svo er skrifad: hann høndlar þá visu í visdóme þeirra.

20. Og enn aftur: Drottenn veit hugsaner spekinganna, at þær eru hegómlegar.

21. Fyrer þvi mete sig eingenn af nockrum Manne. Allt er þed ydvort.

22. Se það Páll, eda se það Apollo, eda se það Cephas, eda Heimurinn, se það lífed eda daudenn, se það hid nálæga, eda ókomna; allt er það ydvart.

20. Þviat Guds rîke er eige fólged í ordum, helldur í krafte.

21. Hvad vileð þer? skal eg með vendi til ydar koma, eda með kærleik og hogværum anda?

## 5. Capituli.

1. Almennilegur rómur er, at þar seu hóraner ydar á mille, og þó slík hóran, þeirrar eigi er getid á medal heidinna þióda, þad, at nockur skal hafa síns fødurs eiginkonu.

2. Og þó erud þer uppþrokader, og hafed eige miklu framar enn umaleð, svo at sá sem þad verk hefir drygt, yrde burt rekenn frá ydur.

3. At sønnu eg fráverandi med líkama, þó nálægur í anda, hefe allareidu svo sem nærverande dæmt yfer honum, sem slíkt hefir gert.

4. Aſ í nafne Drottins vors Jesu Christi.

5. At ydur samann komnum med minum anda, og med krafte Drottins vors Jesu Christi, hann afur at selia andskotanum, til holldsins fordiørfunar, svo at andinn se hiálplegur á dege Drottins vors Jesu.

6. Ydar hrósan er eigi góð; vitið þer eigi at litid súrdeyg syrer allt deiged?

7. Fyrer því reinsið burt hid gamla súrdeiged, svo at þer seud nytt deig, svo sem þer erud ósyrder, þvi vor þásum og einnin eitt páskalamb, sem er Christur fyrer ydur offradur.

8. Fyrer því høllldum páska, eige í gømlu súrdeige, og eige í súrdeige illskunnar og þrettvísinnar, helldur í sætu deige skirleiks og sannleika.

9. Eg skrifade ydur til í bresenú, at þer skylldud ecke hafa at gera med hórunarmenn.

10. Enganuegenn meina eg þessa heims hórunarmenn, eda ágyrndarmenn, ræninga ne blotsmenn skúrgoda, annars hlytud þer verølldena at ryma.

11. Enn nú skrifa eg ydur at þer skulud eigi hafa at gera med þá, sem er, ef sá er nockur sem sig lætur brodur kalla, og er frillulifismadur, eda ágyrndarmadur, ædgudadyrkare, eda brixlunarmadur, ofdryckiumadur, eda ræninge: med þesskonar mønnum skulud þer eige matar neyta.

12. Þvi hvad koma þeir vid mig, sem þar fyrer útan eru, at eg skyllde þá dæma? er eige svo, at þer dæmed þá, sem fyrer innann eru? enn Gud mun dæma þá, sem fyrer útan eru: taked siálfer burt frá ydur þann sem vondur er.

## 6. Capituli.

1. Hvernen dirfist nockur af ydur, sem hefir eitthvad kærumál móte ødrum, at þrætta þar um fyrer ránglátum, helldur enn fyrer Heiløgum?

2. Vitið þer eige, at Heilager munu heiminn dæma? og fyrst heimurinn skal dæmast af ydur, erud þer þá eige nógu vel fallner, til at dæma um litils háttar saker?

3. Vited þer eigi, at ver munum yfer englunum dæma? hversu miklu meir þá yfer stundlegum audæfum?

4. Enn þer, nær þer hafed nockur málaferle, um stundlegann aud, þá taked þer þá, sem hiá søfnudenum forsmáder eru, og seted þá til yfirdsmara.

23. Enn þer erud Christs, enn Christur er Guds.

## 4. Capitule.

1. Hver madur halde oss fyrer Christi þenara, og verkstióra yfer Guds leyndum dómum.

2. Nú heimta menn eige meir at verkstiórunum, enn at þeir finnest trúer.

3. Enn mer er þad fyrer litlum koste, at eg skule af ydur dæmast, eda af einum mannlegum dege, eg dæme mig og eige sialfur.

4. Eg veit mig eigi í nockurn sekann, enn þar med em eg þó eige rettlátur, enn Drottenn er sá, sem dæmer mig.

5. Fyrer þvi dæmid eige fyrer tímann, fyrr enn Drottenn kemur, sá sem auglýsa mun eidnen þad í myrkrum er huled, og opinnber gera rád hiartanna, og mun þá hverium sem einum lofstyr ske af Gude.

6. Enn þetta, góder brædur, hefe eg þydt uppá sialfann mig, og Apollo, ydar vegna, svo at þer lærdud af ockur, at eingenn hroke sér upp mót ödrum, fyrer nockurs manns saker.

7. Þvi hver dæmer um þig? og hvad hefir þu þad, at þu hafer eige medteked, enn fyrst þú hefir þad medteked, hvad hrósar þú þer þá, sem sá þad hefde eigi medtekid?

8. Þer erud nú þegar sadder; þer erud nú þegar auduger vordner, þer riked án vor. Gæfe þad og Gud, at þer riktud, svo at ver mættum og rikia med ydur.

9. Enn eg helld, at Gud hafe gert oss postula, at hinum allra audvirdilegustu, svo sem daudanum yfergefna, þviat ver erum undurfurda ordner heimenum, og svo englum og mönnum.

10. Ver erum bárar fyrer Christs skuld, enn þer hyggner í Christo; ver veiker, enn þer sterker; þer dyrdleger, enn ver forsmánarleger.

11. Þviat allt til þessarar stundar þolum ver hungur og þorsta, og erum kladfáer, og verdum barder, og höfum eingann vissann samastad.

12. Ver erfidum og þiónum med vorum eigin hondum, og nær oss er illa tiltalad, þá blessum ver; enn ver offsókter, þá lidum ver þad.

13. Enn ver lastader, þá grátbænum ver, og iafnan erum ver svo sem bölvan þessarar veralldar, og hreinsunar offur allra manna.

14. Þetta skrifa eg eige ydur uppá þad eg hneixle ydur, helldur áminne eg ydur svo sem mín kærustu börn.

15. Þvi þó þer hefdud tíu þúsund læremeistara í Christo, þá hafed þer þó eigi fedur marga, þviat í Christo Jesu fyrer evangelium þa hefe eg alid ydur.

16. Fyrer þvi áminne eg ydur, vered míner eftirfylgarar.

17. Þar fyrer sende eg Timotheum til ydar, hvarad er minn kær og trúr sonur í Drottne, at hann undervíse ydur mína vegu, þó sem eru í Christo, lika svo sem eg í öllum samkundum og allstadar kenne.

18. Þar hroka sér nú nockorer upp, lika sem eg mundi eigi koma til ydar.

19. Enn eg mun miog snarlega koma til ydar, ef Drottinn vill, og reyna, eige ord þeirra, sem upphrokader eru, helldur kraft.

5. Eg slyt at sega ydar þetta til bligdunar, er þar þá med ollu einginn svo vitur ydar á mille, eda og eigi einn, sem dæma kynne á millum bródurs og bródurs?

6. Helldur deiler einn bróder vid annann, þar ofaná fyrer vantrúudum.

7. Þar er allareidu brestur á millum ydar, at þer hafid lagadeilur ydar á millum.

8. Hvar fyrer lídeð þer eigi miklu helldur órett? eda þvi láteð þer eige áseylast ydur helldur, enn þer gered rángt og óiöfnud, og þó þad vid ydra brædur?

9. Viteð þer eigi, at rángláter munu eigi eignast Guds ríke: láteð eige villa ydur, hverke frillulífismenn, ne blótmenn Skúrgoda, eige hórdómsmenn, ne sælgiætinga, eige helldur þá sem skom drygia med karlmonnum.

10. Eige þiófar ne ágyrndarmenn, eige ofdrykkiumenn, eige hneixlarar, ne ræningar munu Guds ríke erfa.

11. Og þvíliker hafa nockorer útaf ydur verid, enn þer erud nú afþvegner, þer erud helgader, þer erud rettláter, fyrer nafn Drottins Jesu, og fyrer anda Guds vors.

12. Allt leyfest mer, enn eigi er þad allt nytsamlegt. Allt leyfest mer, enn þad skal eigi taka mig til fánga.

13. Fædslann maganum, og maginn fædslunne, enn Gud mun þetta og hitt afmá. Líkaminn er sonnu eige frillulifnadenum, helldur Drottne, og Drottinn líkamanum.

14. Enn Gud hefir uppvakeð Drottenn, og svo mun hann oss uppvekia fyrer sinn kraft.

15. Eda vitid þer eige, at ydrer líkamer eru Christs limer? skylde eg nú taka Christs limu, og gera þar af skækunnar limu, þad se fiærre.

16. Eda vitid þer eige, at hver hann samlagar sig skækunne, at sá er einn líkame med henne? þvi þaug munu, seger hann, tvø í einu holldi vera.

17. Enn hver hann samteinger sig Drottne, sá er einn ande med honum.

18. Flyed frillulifnadinn, þviat allar synder, hverar m...ourinn dryger, eru útann hans líkama, ennhver frillulifnadenn dryger, sá syndgar vid sinn eginn líkama.

19. Eda viteð þer eige, at ydra limer eru mustere heilags anda, sem í ydur er, þann þer hafed af Gude? þer erud og eige ydra sjálfra.

20. Þviat þer erud dýru verde keypter. Þar fyrer vegsamid Gud í ydrum líkama, og í ydrum anda, sem Guds eru.

## 7. Capitule.

1. Um þad þer skrifudud mer til, andsvara eg, at mannenum er gódt at hann snerte eigi konu.

2. Enn fyrer frillulifnadar saker, þá hafe hver einn sína eigen konu, og hver ein hafe sinn eigenn mann.

3. Madurinn gere kvinunne sína skyllduga góðvilld, slíkt hid sama kvinnan mannenum.

4. Konan hefir ecki valld síns líkama, helldur madurinn, líka og einnenn madurinn hefir eige valld síns líkama, helldur konan.

5. Hallde hveruge sig frá odru, nema þad se af beggia sampycke, um stundarsaker, svo at þer seud þess lidugre til føstu og bænahallds, og

komid sídann aftur til samans, svo at andskotenn freiste ydar eige, fyrer ydar óskírlífis saker.

6. Þetta sege eg af vorkunseme, og eige efter skipan.

7. Enn eg villde helldur, at aller menn væru svo sem eg em, enn hver einn hefir sína eginlega giöf af Gude, einn at sönnu svo, enn annar svo.

8. Enn þad sege eg þeim ógiftu og eckum, at þeim er godt, ef þeir blífa svo sem eg.

9. Enn ef þeir fá sér eige halldid, giftest þeir þá, Þvíat betra er at giftast enn at brenna.

10. Enn þeim sem gifter eru byd eg eige, helldur Drottinn, at konan skili sig eigi vid manninn.

11. Enn ef hún adskilst, þá blífe hún utan hiúskapar, eda forlíke sig vid sinn mann, og madurinn forláte eigi sína eginkonu.

12. Hinum ödrum sege eg, enn eigi Drottinn, at ef einhver bróder hefir vantrúada konu, og henni hagar at búa vid hann, þá skili hann eigi vid hana.

13. Og ef sú kona er, sem vantrúadann mann hefir, og þad hagar hönum hiá henni at búa, þá skili hún eigi vid hann.

14. Þvíat vantrúadur madur er helgadur fyrer konuna, og vantrúud kona er helgud fyrer manninu, annars væru börn ydar saurug enn nú eru þau heilög.

15. Enn ef hinn vantrúade fráskilur sig, þá látid hann fráskilia sig, því bróder eda syster eru eigi forbundinn í þann máta, því Gud hefir oss í frid kallad.

16. Eda hvad veitst þu þad kona, nema þú kunner at gera mann enn hólpenn? eda þú madur, hvad veitst þú, nema þú geter gert konuna hiálplega? þó efter því sem Gud hefir hverum einum útdeylt.

17 Hver og einn, efter því sem Drottinn hefir hann kallad, þá gánge hann, og svo skicka eg þad til í öllum söfnudum.

18 Er nockur umskorinn kalladur, sá æske eigi yferhúdar: er og nockur kalladur í yferhúdenne, láte sá eigi umskera sig.

19 Umskurnen er ecke, yferhúdin er og ecke, helldur vardveiting Guds bodorda.

20. Hver einn blífe nú í sinne kallan, sem hann er inne kalladur

21. Ef þú ert einu þræll kalladur, þá haf þar eigi áhyggiu fyrer; enn geter þú frjáls verid, þá neyt þu þess miklu helldur.

22. Þvíat hver hann er þræll kalladur í Drottne, sá er frelsinge Drottins; líka og einnenn hver hann er frelsinge kalladur, sá er þræll Christi.

23. Þer erud dyru verde keypter; verid eigi þrælar manna.

24 Hver og einn, góder brædur, í hverre stett sem hann er kalladur, þar blífe hann i hiá Gudi.

25. Enn um meyar hef eg ecke bodord Drottins, þó sege eg mína meining, sem sáer hefir miskunsemd ödlast af Gude, til at vera trúr.

26. Því meina eg nú þar godt at vera, fyrer nálægrar naudþurftar saker, at manneinum se þad godt svo at vera

27, Er þú vid konuna bundinn, þá sæk eigi efter laus at vera, enn ert þú konulaus, þá leita eigi kvonfángs.

28. Enn þó þú kvóngest, syndgar þú eige, og þó at ein mey gif-

test, syndgar hún eigi, þó munu þesskonar hollðsins harmkvæle hafa, enn eg þyrme ydur giarnan.

29. Þad sege eg ydur, góder brædur, at tíminn er nanmur: framar er þad meiningin, at þeir sem eiginkvænter eru, at þeir sen svo sem þeir hefdu engar.

30. Og þeir sem harma, svo sem hörmudu þeir eigi; og þeir sem fagna, sem fögnudu þeir eige, og þeir sem kaupa, svo sem eignuduft þeir eigi.

31. Og þeir sem brúka þennann heim, þeir vanbrukur hann eigi, því þessa heims frídleikur forgeingur.

32. Enn eg villde at þer værud utan áhyggu: hver ókvæntur er, sá ber áhyggu um þad sem Drottins er, hvernin hann mege Drottni þóknast.

33. Enn hver eginkvæntur er, sá ber áhyggu um þad, hvad heimsins er, og hvernin hann mege húsfreyunne þóknast.

34. Adskilianleg grein er á millum meyar og manns konu. Hin ógifta ber áhyggu um þad, hvad Drottins er, svo hún se heilög á líkama og anda, enn sú sem gift er, sú ber áhyggu um þad, hvad heimsins er, og hvernin hún mege manninum þóknast.

35. Enn þetta tala eg til ydar gagnsemi, eigi fyrer því, at eg leggi snöru fyrer ydur, helldur þess vegna, at þad er hæfiligst, og at þer meged iafnann óhindrader Drottne þiona.

36. Enn ef nockur þykist þá, at ser mune torvelldlega vegna med sína dóttur, med því, at giaforðsins tíme er kominn, og þad vill eigi ödruvís vera, þá geri hann þad hönum líkar, hann syndgar eigi, hann láte þau giftast.

37. Enn ef nockur fastlega ásetur ser, med því hann er óþvíngadur, hafande vald síns eigin[s] legs vilia, og stadfester í sínu hiarta, at vardveita sína dóttur, hann gerer vel.

38. Og hver sem gifter (sína dóttur) sá gerer vel. Enn ef hann gifter hana eigi, sá gerer betur.

39. Kvinnann er lögmálenn underbundin, svo lenge sem hennar madur lifer, enn nær hennar madur er latinn, svo er hún friáls sig at gifta hverum hún vill; þó skal þad ske í Drottne.

40. Enn þó er hún sælli ef hún blífur svo, efter minne meiningu, enn eg helld þad, at eg muni og hafa Guds anda.

## 8. Capitule.

1. Enn um þad sem skúrgodum offrast, þá, vitum ver (svo skrifit þer), því ver aller hofum þá skinsemi: þessi skinsemi hún blæs upp, enn kærleikurenn bæter um.

2. Nú ef einhver lætur ser þykia þad, hann viti nockud, hann veit enn ecke, svo sem honum ber at vita.

3. Enn ef sá er einhver sem elskar Gud, hann er af hönum elskadur.

4. Svo vitum ver nú af þeirre fædslu, sem skúrgodum offrast, at skúrgodid se hegómi í heimenum, og at þar se eingenn Gud, nema sá eine.

5. Og þó at þar seu nockorer sem Guder kallast, hvert þad er á Himne, eda á iordu, med því,

at marger eru Guder, og marger Drottnar.

6. Þá høfum ver þó ecke utann einn Gud, fødurenn, af hverium, aller hluter eru, og ver í hønnur; og einn Drottinn, Jesum Christum, fyrer hvern aller hluter eru, og ver fyrer hann.

7. Enn þessa skinseme hafa eigi aller, Þvíat nockorer hafa gert sier samvitsku ennnú um skúrgodenn, og eta það fyrer skúrgoda fórner, Þar med saurgast þeirra samvitska, med því hún er svo veik.

8. Enn sædann batar oss ecke fyrer Gude: etum ver, þá erum ver eigi betre fyrer það, etum ver og ecke, þá verdum ver eigi verre fyrer það.

9. Enn skaid svo til, at þetta ydart frelsi verde eigi til ásteitingar hinum veiku.

10. Því ef nockur sæi þig, þú sem skinsemina hefir, sitia til bords í godahúsi, verdur þá eige hans samvitska, med því hann er breiskur, upphvott at eta skúrgoda fórner?

11. Og svo fyrerferst þinn breiske bróder vegna þinnar skinsemi, fyrer hvern Christur er þó ulflátinn.

12. Og nær þer syndged svo vid ydvarn bródur, og slaid þeirra breiska samvitsku, þá syndged þer vid Christum.

13. Hvar fyrer, ef sædan hneixlar bródur minn, skylde eg helldur alldrei kiøt eta, svo at eg gerde ecke hneixle mínum bródur.

## 9. Capituli.

1. Em eg eige postule? em eg eige friáls? hefe eg eige sed Drottinn vorn Jesum Christum? erud þer eige mitt verk í Drottne?

2. Og þó eg se eigi annara postule, þá em eg þó ydar postule, því innsigle míns postullegs embættis erud þer í Drottne.

3. Enn andsvar mitt, til þeirra sem mig atspyria, er þetta:

4. Høfum ver eigi valld til at eta og drecka?

5. Høfum ver eige valld til einhvera systur, eignarkonu med oss at flytia, líka sem adrer postular og brædur Drottins, og Cephas?

6. Eda høfum alleinasta eg og Barnabas enga magt til eigi at erfida?

7. Hver fer nockurn tíma í stríd á sinum eigin mála? hver plantar víngard, og etur eigi af hans ávexte? eda hver fodrar hiord, og neyter eigi af miólk hiardarinnar?

8. Tala eg þetta efter manndægre sidvenju? seger og eige løgmálid þetta?

9. Þvíat þar stendur skrifad í Moyfis Løgmále: eigi skaltu múlbinda naut það, sem þresker, hvørt ber Gud áhyggiu fyrer nautunum?

10. Eda seger hann eige þetta í alla stade vorra vegna? Þvíat fyrer vorar saker er þetta ritad, af því hann sem plæger skal plægia í voninne, og sá sem þresker, hann skal þreska í voninne, svo at hann verde hluttakare sinnar vonar.

11. Fyrst ver sáum ydur hid andlega, er það mikils verdt, þó at ver uppskerum ydvart hid líkamlega?

12. Og ef hiner adrer eru hluttakendur þessarar magtar hiá

ydur hvar fyrer. skylldum ver eigi miklu framar? enn ver hofum eigi tídkad þessa magt, helldur umlídum ver allahanda, svo at ver gerdum Christs evangelio enga Hindran.

13 Vitid þer eige, at þeir sem fórner færa, eta af því sem fórnsæret? og þeir sem alltarenu þióna, hafa not af altarenu?

14. Ľka svo hefir og Drottinn tilskickad, at þeir sem evangelium kunngiera, skulu af evangelio nær. ing hafa.

15. Enn ecke þessara hef eg tídkad. Enn eg skrifa eigi helldur þetta þar fyrer, at svo skule vid mig verda gert, því betra være mer helldur daudum at vera, enn þad, at nockur skyllde mína hrósun at engu gera.

16 Því þad eg predika Guds evangelium. þá kan eg eigi hrósa, mer ar því þvíat eg á þad at gera og vee er mer þá, ef eg predika eige evangelium.

17. Gere eg þad viliugur, þá fæ eg laun: enn ef eg gere þad nauduger, þá er mer þó þad embættie á hendur falid.

18 Hvad eru nú þá mín laun í því, at eg predika evangelium Christi, og gere þad sama viliugur, engum til kostnadar, svo at eg misbrúke eigi mitt frelsi í evangilio?

19. Því þó eg se friáls fyrer øllum, þá hefi eg þó gert siálfann mig at hvers manns þión, svo at eg vinne marga af þeim.

20. Því at Gydingum em eg ordinn svo sem Gydingur, at eg vinne Gydinga, og þeim sem under løgmalenu eru, em eg ordinn svo sem under løgmále, at eg vinne þá sem under løgmalenu eru.

21 Og þeim sem án løgmáls eru, em eg ordenn, svo sem án løgmáls, sem eg em þó eigi án løgmáls fyrer Gude, helldur em eg í Christi løgmále, svo at eg vinne þá somu, sem án løgmáls eru.

22. Þeim, sem breisker eru, em eg ordenn sem være eg breiskur, svo at eg vinne hina breisku: øllum em eg ordinn alsháttar, svo at eg gere allstadar einhvera hiálplega.

23. Enn þetta gere eg vegna evangelii, svo at eg verde þess hluttakare

24. Eda vitid þer eige, at þeir sem á skeidenu hlaupa, at þeir aller hlaupa, enn einn er sá sem hnossid tekur? hlaupid nú og svo, at þer høndlid þad.

25 Enn hver sá sem slæst, hann varer sig vid øllu, þeir at sonnu, uppá þad þeir ødlest forgengelega kronu.

26. Enn ver óforgengelega: enn eg hleyp, eige svo sem fyrer hid óvissa; eg slæ, eige svo sem sá, sem í vindenn slær.

27. Helldur tem eg minn líkama og þiáe hann, svo at eg predike þad eigi ødrum, og verde siálfur rækur.

## 10. Capitule.

1. Enn eg vil eigi dylia fyrer ydur, kærer brædur, at vorer fedur voru aller under skyenu og aller gengu þeir yfer hafid.

2. Aller eru þeir og skírder und: er Mose med skye, og med sió.

3. Og aller hafa þeir neytt einslags andlegrar fædu, og aller

hafa þeir einslags andlegann dryck druckid

4. Því þeir druncku af þeirre andlegre hellu, sem þeim eftirfylgde, enn sú hella var Christur.

5. Enn á þeim velflestum hafde Gud enga þocknan; af því eru þeir nidurslegner í eydemörku.

6. Enn þetta er skied oss til fyrirmindar, svo at ver skyldum eigi lyst hafa til þess illa, svo sem þeir höfdu lyst.

7. Gerest og eige blótmenn skurgoda, líka svo sem nockorer af þeim urdu, efter því sem skrifad er: fólkid settest nidur at eta og drecka, og stód upp at leika.

8. Dryged og eige hóraner, svo sem nockorer af þeim drygdu hóraner, og fellu á einum dege þriár þúsunder og tuttugu.

9. Freistum og eige Christs, svo sem nockorer af þeim freistudu hans, og fyrerfórust af högg ormum.

10. Möglid og eige, líka sem nockorer af þeim mögludu, og fyrerfórust af fordiarfaranum.

11. Þetta allt skede þeim til fyrermindar, enn þad er skrifad oss til vidvörunnar, yfer hverra at heimsins ende er kominn.

12. Fyrer því, hver hann lætur ser þykia at hann stande, gefe sá vel gaum at, at hann falle eige.

13. Fyrer ydur hefir enn nú enginn freistne kalled, utan mannleg, enn Gud er trúr, sá eigi tillætur at ydar se freistad framar enn þer formegned, helldur gerer hann þá endingu á Freistingunne, at þer geted þad þolad.

14. Þar fyrer, míner elskulegustu flyed fra skúrgodadyrdkan.

15. Svo sem vid vitringa tala eg, dæmed þer hvad eg sege.

16. Sá blessade kaleikur hvern ver blessum, er hann eige hluttekning Christi blóds? og þad braud, hvert ver briótum, er þad eige hluttekning Christi líkama?

17. Þvíat þad er eitt braud, svo erum ver marger einn líkame, med því ver verdum aller eins brauds hluttakarar.

18. Hygged þer at Israel efter holldenu, at þeir sem fórnernar eta, eru þeir eigi alltarisins hluttakarar?

19. Hvad skal eg nú þá sega? eda skal eg sega at skúrgodid se nockud? eda at skúrgoda fórner sen nockud?

20. Enn eg sege, at þad, hvad hiner heidnu offra, þad offra þeir diöflenum, og eigi Gudi: nú vil eg eigi at þer verded hluttakarar med diöflunum.

21. Eigi fáed þer í senn druckid kaleik Drottins og diöflanna kaleik: þer getid og eige í senn hluttakarar orded matbords Drottins og matbords diöfulsins.

22. Eda viliumm ver þrátta vid Drottinn? hvert erum ver hönum sterkare?

23. Mer leifast sannlega aller hluter, enn þeir bata eigi aller; mer leyfest allt, enn þad er eigi allt til uppbyggingar.

24. Eingenn leite þess hvad hans er, helldur hver þad, hvad annars er.

25. Allt hvad á kiötmángara torginu er til sölu, þad eted, efterspyriande at engu, svo at þer væged samvitskunne.

26. Þvíat iördenn er Drottins, og allt þad sem þar er inne.

27. Enn ef einhver af vantrúudum býdur ydur til snædings, og þer viled þángat gánga, þá etid af öllu því sem fyrer ydur verdur sett, og spyred einskis, at þer vægid samvitskunne.

28. Enn ef nockur seger til ydar: þetta er skúrgoda offur, þá etid eige, fyrer þess saker, sem þad seger ydur, at þer vægid samvitskunne. Þvíat iörden er Drottens, og hvad þar er inne.

29. Enn eg sege þetta eigi um þína egin samvitsku, helldur hins annars: Þvíat hvar fyrer skylde eg mitt frelsi dæmast láta af annarlegre samvitsku?

30. Því ef eg neyte þess med þackláte, hvar fyrer skyllde eg þá lastadur verda um þad, sem eg gere Drottne þacker fyrer?

31. Hvert þer nú eted eda dreckid, eda hvad þer gered, þá gered þad allt til Guds dyrdar.

32. Gered enga hneixlan, hverke Gydingum ne Grickum, ne Guds safnade.

33. Líka svo sem eg gere mig hverium manne gedfelldann í öllu, eige atleitande hvad mer, helldur hvad mörgum er gagnlegt, svo at þeir hiálpieger verde.

34. Verid míner efterfylgarar, svo sem eg em Christi.

## 11. Capitule.

1. Eg lofa ydur, góder brædur, at þer minnist mín í öllum stödum, og halldid þann sidvana, hvern eg eg sette ydur.

2. Enn þad vil eg, at þer vitid, at Christur er hvers manns höfud, enn konunnar höfud er madurinn, enn höfud Christi, er Gud.

3. Og hver sá madur sem bidur eda spágur og hefir nockud á höfde, hann óvirder sitt höfud.

4. Og hver sú kona sem bidur eda spágar, med beru höfde, hún óvirder sitt höfud, því þad er eins, sem være hennar höfudhár í burtu rakad.

5. Tale hún eigi hylia sig, þá afrakest hennar höfudhár. Enn fyrst þad er liótt fyrer konuna at hafa afrakad hár eda klippt, þá hyli hún sig.

6. Enn kallmadurinn skal eige hylia höfuded, med því hann er Guds mind og sóme. Enn konan er mannsins sóme.

7. Þvíat madurinn er eige af konunne, helldur konan mannenum.

8. Madurinn er eigi skapadur vegna konunnar, helldur konan vegna mannsins.

9. Þar fyrer skal konan hafa yfer sinn höfde skyln vegna hinna forvitnu.

10. Og þó er hverki madurinn án konunnar, ne konan án mannsins í Drottne.

11. Þvíat líka svo sem konan er af mannenum, svo kemur og madurinn fyrer konuna, enn aller hlutir af Gude.

12. Dæmed þer siálfer ydar á mille, hvert þad hæfer konunne at bidia fyrer Gude berhöfdud?

13. Kenner ydur eige náttúran siálf, at þad se lyte fyrer karlmannenn at láta ser vaxa lángt hár.

14. Enn konunni sómer at hún hafe sidt hár; af því hárid er henne til skylingar gefid.

15. Enn ef sá er einhver ydar á mille, sem þráttunarsamur vill vera, hann vite þad, at ver höf-

um eige sitkann, Hovana, og eige helldur Guds sofnudur.

16. Enn þetta byt eg at bióda, og kann eige at lofa þad, at þer komid eigi, tilsamans med betre vísu, helldur med verre vísu.

17. J. fyrstu, þá þer komid til samans í samkundunum, heyre eg at þar er sundurlynde ydar á mille, og eg trúe því at nockuru leite.

18. Því at harðhlióta flockadrætt er at vera ydar á mille, svo at þeir sem rettsinnader eru, opinberer verde ydar á mille.

19. Þá þer komid nú tilsamans, þá verdur þar eigi halldin Drottins kvølldmáltíd.

20. Því nær þar skal kvølldmálltíd hallðast, þá tekur hver sína egin fædu ádur, og sá eine er húngradur, hinn annar er druckinn.

21. Hvert hafed þer eingen hús, hvar þer kunned at eta og drecka inne, eda forsmáed þer Guds søfnud, og forsmáed þá sem eige hafa? hvad skal eg segia ydur? skal eg lofa ydur? í þessu lofa eg ydur eige.

22. Eg medtók þad af Drottne, sem eg hefe ydur gefid, af því, at Drottinn vor Jesus, á þeirre nótt sem hann var svikinn, tók hann brandid,

23. Gerde þacker, braut þad og sagde: takid, og etid, þad er minn líkami, sem fyrer ydur verdur brotinn, gerid þad í mína minning.

24. Slíka einninn kaleikenn, efter kvølldmáltidina, og sagde: þesse kaleikur er nyr sáttmáli fyrer mitt blód, gérid þetta, svo oft sem þer dreckid í mína minning.

25. Því at svo oft sem þer bergeð af þessu brande, og dreckid af þessum kaleik, skulud þer kunngera dauda Drottens þángad til hann kemur.

26. Hver hann etur nú af þessu brande, og dreckur af þessum kaleik Drottins óverdugur, sá er sekur vid hølld og blód Drottins.

27. Enn hver madur próse sig siálfur, og ete svo af þessu brande, og drecke svo af þessum kaleik.

28. Því at hver hann etur og dreckur óverdugur, sá etur og dreckur siálfum ser dóm, med því hann gerde eige greinarmun á Drottins líkama.

29. Fyrer því eru svo marger siúker og veiker ydar á mille, og þeir marger sem sofnader eru.

30. Því ef ver dæmum oss siálfer, þá verdum ver eigi dæmder.

31. Enn nær ver dæmumst, þá verdum ver af Drottne myptater, uppá þat ver fyrerdæmumst eige med heimenum.

32. Fyrer því, brædur míner, nær þer komid til samans at neyta, þá bíde hver annars.

33. Enn ef einhver húngrar, þá ete sa heima, svo at þer komid eigi saman til dómsáfellis. Enn hit annad vil eg skicka þá eg kem.

## 12. Capitule.

1. Af þeim andlegu giøfum, vil eg eige dylia fyrer ydur, góder brædur.

2. Þer vited at þer vorud heidner, og gengud burt til mállausra skúrgoda, svo sem þer urdud tilleidder.

3. Fyrer því kunngere eg ydur, at einginn sá, sem fyrer Guds anda talar, formæle Jesu. Og eingenn fáe Jesum Drottenn kallad, utan fyrer Heilagann anda.

4. Þar eru margvíslegar giafer, enn þar er einn Ande.

5. Þar eru marghattud embætte, enn einn Drottinn.

6. Þar eru márghattader kraftar, enn einn Gud, sem verkar alla hlute í øllum.

7. Enn í serhverium eitum andsyna sig giafer andans, til almennelegrar nytsemdar.

8. Einum verdur gefid fyrer andann at mæla af vísdóme, enn ødrum verdur gefid at tala af skinseme, efter hinum sama anda.

9. Ødrum trú í sømum anda, enn hinum giafer lækninga í sømum anda.

10. Ødrum kraftaverk at gera; ødrum útleggingar gift; ødrum at gera aiflilianlega grein anda; hinum ødrum márghattud túngumál; enn ødrum útlegging túngumálanna.

11. Enn allt þetta verkar einn og same ande, skiftande serhverium sitt, efter því sem hann vill.

12. Þvíat líka svo sem einn líkame er, og hefir þó marga lime, enn aller limer líkamans þó þeir sen marger, þá eru þeir þó einn líkame; líka svo er Christur.

13. Þvíat ver erum fyrer einn anda, aller í einn líkama skírder, hvert ver svo erum Gydingar eda Gricker, þrælar eda frelsingar, og erum svo aller til at vera einn ande ríkuglega gáfader.

14. Þvíat líkamenn er eigi einn limur, helldur marger.

15. Og ef fóturinn segde: Eing hønd em eg, þar fyrer em eg eigi limur líkamans, skylde hann þar fyrer eigi vera líkamans limur?

16. Og ef eyrad segde: Eg em eigi auga, þar fyrer em eg eigi limur líkamans, skylde þat saker þess eigi vera líkamans limur?

17. Þvíat ef allur líkamenn være auga, hvar være þá heyrnen? Ef allur líkamenn være heyrn, hvar være þá ilmingen?

18. Enn nú hefir Gud sett limena, og hvern einn þeirra serdeilislega á líkamann, svo sem hann hefir viliad.

19. Enn ef aller limer være einn limur, hvar være þá líkamenn?

20. Svo eru nú limerner marger, enn líkamenn einn.

21. Þvíat augad má eigi segia hendenne: Eg þarf þín eigi vid; eda þar í mót høfudid til fótanna: Eg þarf eigi ydar vid.

22. Miklu helldur, þeir limer líkamans sem oss synast breiskaster vera, þeir eru naudsynlegaster.

23. Og þá ver reiknum óærlegasta, þeim sømu leggium ver mesta sóma til; og þá sem oss eru lyte at, prýdum ver mest.

24. Þvíat þeir sem os prýda, þurfa þess eigi vid, enn Gud hefir líkamanum svo samanblandad, og gefid þeim þurftugu limum hinn mesta sóma.

25. Svo at einginn ágreiningur se á líkamanum, helldur at hver limur bere jafnan áhyggiu fyrer ødrum.

26. Og ef einn limur lídur, þá lída aller limer med, og ef einum limnum verdur sóme veittur,

þá samfagna hönum aller limer-ner.

27. Enn þer erud Christi líkame og limer, hver efter sinne deilld.

28. Og Gud hefir sett í söfnudinn, í fyrstu Postula, þá spámenn, í þridia máta lærefedur, efter þessa þá, sem kraftaverk gera; þar næst þá sem lækningsgiafer hafa; vidhiálpara; stiórnara; þá sem tala márgháttud túngumál.

29. Eru þeir aller Postular? Eru þeir aller ritningganna útleggiarar? Eru þeir aller lærefedur? Eru þeir aller þeir menn, sem kraftaverk gera?

30. Hafa þeir aller lækningsgift? Tala þeir aller márgháttud túngumál? Kunna þeir aller út at leggia?

31. Enn efterstundid þeim hinum bestu gáfum, og eg vil vísa ydur enn ædra veg.

## 13. Capitule.

1. Þó at eg talade túngum manna og engla, og hefde eigi kærleika, þá være eg einn hliómandemálmur, eda hvellande bialla.

2. Og þó at eg hefde útleggingar gáfu, og visse alla leyndahlute og allann vísdóm, og hefde alla trú, svo at eg fiallen úr stad hrærde, enn hefde eigi kærleika, þá væri eg ecki.

3. Og þó at eg gæfe allar mínar eigur fátækum og eg lete brenna minn líkama, og hefde eigi kærleika, þá være mer þat eingen nytseme.

4. Kærleikur er þolinnmódur, og vingiarnlegur; kærleikur vandlæter eigi; kærleikur gerer eigi íllmannlega; eigi blæs hann sig upp.

5. Hann er eigi osskopasamur; eigi leitar hann þess, hvad hans er; hann lærur eigi gera sig reidann; hann leitar eigi efter skada.

6. Eigi fagnar hann yfer rángsløte, enn fagnar sannleika.

7. Hann umber alla hlute; hann trúer öllu; hann vonar allt; hann umlídur alla hlute.

8. Kærleikur þreytest eigi: Spádómunum mun linna, og túngumálunum mun linna, og skinseminne mun linna.

9. Þvíat vorer vitkunner eru hálfverk, og vorar spásagner eru hálfverk.

10. Enn nær þat kemur, sem algert er, þá linner þat sem hálfsverk er.

11. Þá eg var barn, talade eg sem barn, og eg var forstáll sem barn, og eg húgsade sem barn, enn þá eg gerdest madur, lagde eg af hvad barnsklegt var.

12. Nú siáum ver í skuggsió, svo sem í rádgátu, enn þá auglite til auglitis; nú þecke eg at nockorum parte, enn þá mun eg þeckia svo sem eg em þecktur.

13. Nú blífa þesse þriú, trúen, kærleikur; enn kærleikur er mestur af þessum.

## 14. Capitule.

1. Stundid efter kærleika, og kostgæfid andlegar gáfur, enn þó mest, at þer mættud útleggia ritningarnar.

2. Þvíat hann sem túngur talar, hann talar eigi mönnum, heldur Gude, þvíat hönum hlydder

eingenn, enn í andanum talar hann leynda dóma.

3. Enn hann sem útleggur, sá talar mønnum til uppbyggingar, og til áminningar, og til huggunar.

4. Sá túngur talar, hann forbetrar siálfann sig, enn sá sem vitningarnar útleggur, hann forbetrar Guds søfnud.

5. Eg vilde at þer kynnud aller túngur at tala, enn þó mik ne heldur, at þer kynnud at útleggia, því at sá sem útleggur, hann er þeim meire sem túngur talar, utann at svo se, hann legge þat einninn út, svo at søfnudurinn fái þar af forbetran.

6. Enn nú, góder brædur, þo eg kæme til ydar, og talade fram ande túngur, hvad være eg ydur gagnlegr? Nema eg talade til ydar annadhvert fyrer opinberan, eda fyrer skinseme, eda fyrer útleggina eda fyrer lærdóm.

7. Þeim hlutum er svo háttad sem hlióda, enn lifa eigi? Hvert þat er nú pípa eda harpa, fyrst þat gefur enganm greinelegann hlióm af sér, hvernenn má þá vitast, hvad pípad er, eda hvad á hørpu er spilad?

8. Og ef lúdurinn gefur óskilmerkalegt hlióð, hver mun þá vilia búast til bardaga?

9. Líka eins erud þer, nær þer mælid framande túngur, útan þer gefid framm skilmerkelega rædu, hvernenn má þá vitast, hvad talad er? Þvíat þer taled í vind.

10. Sannlega er margt raddar kyn í heimenum, og þó er ecki þeirra, sem eigi hafe sitt hlióð.

11. Og fyrst eg veit eigi þýding raddarennar, þá verd eg þeim sem talar, óskiliánlegur, og hann sem talar, verdur mer óskilianlegur.

12. Svo og líka þer, fyrst þer erud ástundande þær andlegu gáfur, þá leitid efter því at forbetra søfnudenn, uppá þat þer kunned at hafa alla hlute ríkuglega.

13. Hvar fyrer, sá sem framande túngur talar, hann bide svo at hann útlegge þat einninn.

14. Því fyrst eg bid med túngunne, þá bidur og minn ande, enn mín meining gerer engum manne ávøxt.

15. Hvernin skal þat þá vera? Þat skal svo vera; eg vil bidia med mínum anda, og eg vil bidia med mínu hugskote: Psalma vil eg syngia í andanum, og eg vil psalma syngia med hugskotenu.

16. Enn þá þú blessar í andanum, hvernin skal þá sá sem í leikmans stad stendur, amen sega til þinnar þackargerdar, med því hann veit eigi, hvad þú seger?

17. Sannlega gerer þú gódar þacker, enn hinn annar betrast þar eigi af.

18. Eg þacka Gude mínum, at eg tala fleire túngur, enn aller þer.

19. Enn helldur vil eg tala fimm ord í safnadenum med mínu sinne, svo at eg kenne ødrum, helldur enn annars tíu þúsunder orda med túngunne.

20. Góder brædur! verid eigi børn í skilninge, helldur verid børn í illsku, enn verid algerder í skilningenum.

21. Í løgmálenu er svo ritad: Eg mun med annarlegum túngum og annarlegum vørum tala til lýds þessa, og eigi minnu þeir mig þá enn svo heyra, seger Drottenn.

22. Þar fyrer eru túngur til teiknȣ, eigi þeim sem trúa, helldur vantrúudum, enn gift útleggingar ritninganna er eigi vantrúadra, helldur trúadra.

23. Þótt nú allur sǫfnudurinn kæme tilsamans í einn stad, og talade allar túngur, enn þar genge inn leikmadur, eda vantrúadur, mundu þeir eige sega, at þer værud ærer?

24. Enn ef þeir aller útlegdu ritningar, og þar genge inn einhver vantrúadur, eda leikmadur, sá yrde þegar af ǫllum þeim reindur, og af ǫllum dæmdur.

25. Og þad í hans hiarta er hulid, yrde þá svo opinberad, og svo være hann framfallande á sitt andlit, Gud at tilbidia, þad vidurkennande, at Gud se sannarlega med ydur.

26. Hvernenn er þad þá, góder brædur? þegar þer komid tilsamans, þá hafe hver ydar einn lofpsalm, eda hafe hann gift lærdóma, hafe hann gift túngumála, eda hafe hann opinberaner, eda hafe hann gift útleggingar, þá láted þad allt ske til betrunar.

27. Og ef einhver talar framande túngur, þá verde þad annadhvert af tveimur, eda mest af þremur, einum efter annann; enn einn útleggi þad.

28. Enn ef hann er enginn útleggare, þá þeige hann í samkundunne, og tale ser siálfum og Gude.

29. Enn útleggarar ritninganna tale tveir eda þrír, og hiner dæme þar um.

30. Enn ef einhver fær opinberan, sem þar hiá situr, þeige hinn fyrre.

31. Þvíat aller meged þer túlka ritningar, einn efter annann, svo at aller lære, og aller verde áminnter.

32. Þvíat gáfur þeirra, sem ritningarnar túlka, eru túlkurunum undervorpnar.

33. Þvíat Gud elskar eigi ósidseme, helldur sidseme, svo sem í ǫllum sǫfnudum heilagra.

34. Láted ydrar kvinnur þeiga í sǫfnudenum, þvíat þeim má eigi leyfast at tala, helldur undergefnar at vera, efter því sem lǫgmálid vottar.

35. Enn ef þær vilia nockud læra, þá spyre þær menn sína at því heima. Þvíat kvinnunne er þad lyte, at tala í sǫfnudenum.

36. Eda er Guds ord af ydur útkomid? eda er þad til ydar alleina komed?

37 Ef nockrum þyker, at hann se útleggare ritninga eda at hann hafe yfornáttúrlega gift, þá gaumgæfe hann hvad eg skrifa ydur, þvíat þad eru boderd Drottins.

38. Enn ef nockur er skinlaus, þá se hann skinlaus.

39. Fyrer því, góder brædur, verid kostgæfer í at útþýda ritningarnar, og fyrerbióded eige framande túngur at tala.

40. Láted allt sidsamlega og efter reglu tilgánga.

## 15. Capitule.

1. Enn eg áminne ydur, góder brædur, á þad evangelium, sem eg kunngerde ydur, hvert þer og medtókud, í hveru þer og standed.

2. Fyrer hvert þer og verded hiálpleger, med þeim hætte, sem eg kunngerde þad ydur, ef þer hag-

ed, því hallded, utan at svo se þer hafid því til ónytis trúad.

3. Þvíat eg gaf ydur í fyrstu, hvad eg medtók, þad, at Christur se idfláteinn fyrer vorar syndir, efter ritningunum, og at hann se grafinn.

4. Og uppaftur risinn á þridia dage efter ritningunum.

5. Og þad hann se sedur af Cephas, og efter þad af hinum tólf.

6. Og efterá var hann sedur meir enn af fimm hundrud brædrum í senn, af hverium marger enn lifa, enn nockorer eru burtsofnader.

7. Og efter þad er hann sedur af Jacobo, og sídann af øllum postulunum.

8. Enn sídarst allra þeirra, svo sem af ødrum ótímabærum burde, er hann sedur af mer.

9. Þvíat eg em sídstur postulanna, og em eige verdugur, at eg skule postule heita, fyrer þad eg ofsókti veitte Guds søfnude.

10. Enn af nád Guds em eg þad eg em; og hans nád í mer hefir eigi forgefins verid, helldur hefi eg miklu meir erfidad enn aller þeir adrer, þó eige eg, helldur sú Guds nád, sem med mer er.

11. Þad se nú eg, eda þeir, þá predikum ver svo, og svo hafid þer trúad.

12. Enn fyrst Christur verdur predikadur, at hann se upprisinn af dauda, hvernen sega þá nockorer af ydur; at upprisa framlidinna se ecke?

13. Og ef upprisa framlidinna er ecke, þá er Christur og eige upprisinn.

14. Enn ef Christur er eigi uppaftur risinn, svo er vor predikan ónyt, þá er og ydar trú ónyt.

15. Enn ver fyndumst þá einnen liúgvottar Guds, med því ver høfum vitnad gegn Gude, at hann hefde Christum uppvaked, hvern hann hefde eige uppvaked.

16. Fyrst hiner framlidnu skulu eigi upprísa: því ef framlidner skulu eigi upprísa, þá er og Christur eige upprisinn.

17. Enn ef Christur er eigi uppaftur risinn, þá er ydar trú ónyt, svo erud þer þá enn í ydrum syndum.

18. Þá eru og hiner, sem sofnader eru í Christo, fortapader.

19. Ef ver vonum alleinasta í þessu life á Christum, þá erum ver hiner vesælustu allra manna.

20. Enn nú er Christur uppaftur risinn af dauda, og frumburdur ordenn þeirra, sem sofnader eru.

21. Af því, at fyrer einn mann kom daude, og fyrer einn mann kom upprísa framlidinna.

22. Þvíat líka svo sem þeir deya aller í Adam, svo verda þeir og aller lífgader í Christo.

23. Þó hver einn í sinne skickan, sá fyrste ávøxtur er Christus, og þar næst þeir sem Christi eru í hans tilkomu.

24. Þar næst er endingin, þá hann mun ofurgefa ríked Gude og fødur; þá hann mun afmá allann høfdingsskap, herrastetter og valld.

25. Enn hønum byriár at ríkia, þar til hann leggur alla sína óvine under sínar fætur.

26. Enn sá sídarste óvinur, sem afmádur verdur, er daudenn.

27. Þvíat hønum hefir hann alla hlute under hans fætur lagt.

Og þá hann seger það, at allt se underlagt, þá er það opinnbert, at sá er undanteкenn, sem hønum hefir alla hlute underlagt.

28. Enn nær hønum eru aller hluter undergefner, þá mun siálfur sonurinn undergefast þeim, sem, hønum undergaf alla hlute, svo at Gud se allt í øllum.

29. Hvad gera þeir ellegar, sem skírast láta uppyfer fram idnum? ef at hiner frammlidnu skulu eigi upp aftur rísa, hvar fyrer skírast þeir þá uppyfer þeim dauda?

30. Og hvar fyrer erum ver þá allar stunder í háskaseme?

31. Daglega dey eg fyrer vora hrósan, sem eg hefe í Drottne vorum Jesu Christo.

32. Strídde eg efter mannlegre meiningu vid villudyrenn í Epheso, hver nytsemd er mer það þá, ef hiner frammlidnu skulu eigi upp aftur rísa?

33. Etum ver og dreckum þvíat á morgun erum ver dauder: látid eige tæla ydur, því vondt samtal spiller gódum sidum.

34. Vakned rettelega og syndged eige, þvíat sumer vita eige af Gude: enn þetta sege eg ydur til bligdunar.

35. Nú mætte enhver segia: hvernenn munu hiner frammlidnu upprísa? og med hvílíkum líkama munu þeir koma?

36. Þú drusse! Það þú sáer lifnar eige, utan það deye ádur.

37. Og það þú sáer, er eige sá líkame sem verda skal, helldur þeis korns, annad hvert hveitis, eda einhvers annars.

38. Enn Gud gefur því líkama, efter því sem hann vill, og ser hverium einum af frœenu eiginnlegann líkama.

39. Allt holld er eigi líka háttad holld, helldur er annad holld manna, annad dyra, annad fiska, enn annad fugla.

40. Þar eru og himneskер líkamir, og jardnesker líkamir; enn adra dyrd hafa hiner himnesku, enn adra hiner jardnesku.

41. Annann biartleik hefir sólen, enn annann túnglid: annann biartleik hafa og stiørnurnar, þvíat ein stiarna yfervinnur adra í biartleika.

42. Svo og upprisa frammlidinna; það verdur sád forgengelegt, enn mun uppaftur rísa óforgengelegt.

43 Það verdur sád í vansemd, enn mun uppaftur rísa í vegsemd.

44. Það verdur sád í breiskleika, enn mun uppaftur rísa í krafte. Það verdur sád náttúrlegur líkame, enn mun uppaftur rísa andlegur líkame Þar er einn náttúrlegur líkame, og þar er einn andlegur líkame.

45. Svo sem skrifad er: hinn fyrste madur Adam, er vordinn at lifande sálu, og hinn sídare Adam at lífgande anda.

46. Enn hinn andlege er eige sá fyrste, helldur sá náttúrlege, og efter það er hinn andlege.

47. Hinn fyrste madur af iørdunne er jardlegur, enn hinn annar madur er Drottinn af himnum.

48. Hvílíkur hinn iardneske er, svo eru og hiner jardnesku, og hvílíkur hinn himneske er, svo eru og hiner himnesku.

49. Og líka svo sem ver høfum borid líking hins iardneska, svo munum ver og bera líking hins himneska.

50. Enn þetta sege eg, góder

brædur, at hölld og blód getur eige egnast Guds ríke, og hid forgengelega skal eige erfa hid óforgengelega.

51. Siáed, at eg sege ydur leyndann Dóm, Þvíat ver munnum eigi aller sofna, enn Þó munum ver aller umskipteleger verda.

52. Og Þad nærsta skyndelega, á einu augabragde, vid hinn sídarsta lúdurþyt. Þvíat lúdurinn mun gella, og hiner framlidnu munu uppríſa óforgengeleger, og ver munum umskipteleger verda.

53. Þvíat Þetta hid forgengelega hlytur at klædast óforgengeleika, og Þetta hid daudlega hlytur at íklædast ódaudlegleika.

54. Enn Þá Þetta hid forgengelega skrydest óforgengelegleika, og Þetta hid daudlega klædest Þinu ódaudlega, uppfyllest Þad ord sem skrifad stendur: daudenn er uppsvelgdur til sigurs.

55. Daude, hvar er Þinn broddur? helvíte, hvar er Þinn sigur?

56. Enn daudans broddur er syndenn; enn kraftur syndarennar er lögmaled.

57. Enn Gude Seu Þacker, sem oss hefir sigurinn geled, fyrer Drottinn vorn Jesum Christum.

58. Fyrer Því, mín kæru born, verid stadfaster og óhræranleger, og aukest æ tíd í verke Drottins, med Því Þer vited, at ydvart erfide er eigi ónytt í Drottne.

## 16. Capitule.

1. Enn um Þann Stirk sem Menn skal vid hina Heilögu, svo sem eg hefe bodid söfnudinum í Galatia, Þá gered Þer og líka.

2. Legge hver ydar hiá sialfum ser á fyrsta dege vikunnar, og samannsafne hvad hann kann af stad at koma, svo at eige Þurfe Þá hid fyrsta, eg kem til, Þessare hialp saman at safna.

3. Enn Þá eg kem Þar, hvern um helst Þer Þá trúid til brefanna, Þá vil eg senda, svo at Þeir slyti ydvara gódvilld til Jerusalem.

4. Og ef Þess gerest Þörf, at eg einnin ferdest Þángat, Þá skulu Þeir med mer fara.

5. Enn eg vil koma til ydar, Þá eg fer um Macedoniam, Þvíat um Macedoniam mun eg ferdast.

6. Enn má vera, at eg blífe hiá ydur, eda dveli Þar einnin um veturinn, svo at Þer gered mína útfør, hvert sem eg kann at ferdast.

7. Nú vil eg eigi siá ydur í Þessare umferd, Þvíat eg vonn, at eg muni um nockurn tíma tefia hiá ydur, ef Drottinn lofar.

8. Enn í Epheso mun eg dveliast til hvítasunnu.

9. Þvíat mer eru Þar miklar og kröftugar dyr opnadar, og Þeir eru kostgæfer, enn marger eru Þar mótmælendur.

10. Ef Timotheus kemur til ydar, siáed svo til, at hann se utann ótta hiá ydur, Því hann rekur og svo Drottins eriende, svo sem eg.

11. Fyrer Því forsmáed hann eige, helldur leided hann út í fride, svo at hann kome til mín, Þvíat eg bíd hans med brædrunum.

12. Enn af bródur Apollo Þá vitid, at eg hefe áminnt hann nærsta miög, at hann kæme til ydar, med brædrunum, enn Þad var med engu móte hans vili,

at hann kæme nú. Enn hann mun þó koma, þá hann fær tóm til.

13. Vaked og standed í trúnne; bered ydur karlmannlega at, og vered sterker.

14. Alla ydra hlute láted ske í kærleika.

15. Enn eg áminne ydur, góder brædur, Þer þecked heimkinne Stephanæ, at þeir eru frumburder þeirra í Achaia, og siálfer hafa þeir skickad til þiónustu vid Heilaga.

16. Uppá þad þer séud og þvílikum undergefner, og øllum þeim sem styrkia til og erfida?

17. Enn eg fagna af Stephanæ og Fortunati, og Achaici tilkomu, þvi hvad mig wantade hiá ydur, þad uppfylldu þeir.

18. Þvíat þeir mærdu minn Anda, og ydvarn: fyrer því þeckid þá sem þess háttar eru.

19. Ydur heilsar søfnudurinn í Asia; ydur heilsar mikelega í Drottne Aqvila og Priscilla, med þeim søfnude í þeirra húsi.

20. Ydur heilsa aller brædur: heilsid hver ødrum med heiløgum kosse.

21. Eg Páll heilsa ydur med minne hende.

22. Og ef nockur er sá, hann elske eige Drottinn vorn Jesum Christum, þá se hann Anathema, Maranatha.

23. Nád Drottens vors Jesu Christi se med ydur.

24. Minn kærleike se med ydur øllum í Jesu Christo, Amen.

Ender hins fyrra S. Páls Pistills til Corinthumanna.

# Annar S. Páls Pistill til Corinthumanna.

## 1. Capitule.

1. Paulus, Postule Jesu Christi fyrer Guds vilia; og bróder Timotheus. Þeim Guds søfnude í Corintho, samt øllum Heiløgum í allre Achaia.

2. Se nád og fridur med ydur, af Gude vorum fødur, og Drottne Jesu Christo.

3. Blessadur se Gud og fader Drottins vors Jesu Christi, hver fader er miskunsemdanna, og Gud allrar huggunar, sá oss huggar í allre vorre hriggd.

4. Svo at ver getum og huggad þá, sem eru í alls háttudum hriggdum, med þeirre huggan, hvar med ver verdum af Gude huggader.

5. Þvíat líka svo sem ver høfum miked af Christi pínu, svo verdum ver og líka ríkuglega huggader fyrer Christum.

6. Enn hvert ver høfum hriggd eda huggan, þá sker þad ydur til góda: er þad hrigging, þá sker þad ydur til huggunar, og heilsugiafar, hver hellsugiof audsyner sig, ef þer á þennann máta med þolinmæde líded, líka sem ver líðum; er þad huggan, svo sker þad ydur til huggunar og hiálprædis.

7. Og vor von er stadføst fyrer ydur, af því ver vitum þad, at

Likka sem þer erud hluttakarar vordner hrigdanna, svo munud þer og verda hluttakarar huggunarinnar.

8. Þvíat ver vilum eige dylia fyrer ydur, góder brædur! vora hrigd, hver oss skede í Asia, þvíat ver vorum ódæmelega forþyngder, yfer vort megn, svo at ver örvæntum einnen lífe at hallda, úrskurdande þad med siálfum oss, at ver ættum at deya.

9. Enn þad skede þar fyrer, at ver settum eige vorn trúnad á siálfa oss, helldur á þann Gud sem af dauda uppvekur.

10. Hver oss hefir frelsad af þvílíkum dauda, og nú daglega frelsar.

11. Og ver vonum at hann mune oss frelsa her efter, fyrer tilstirk ydrar fyrerbænar fyrer oss, svo at fyrer þá gáfu sem oss er gefen, fyrer margar personur yfer oss, ske mikil þackargerd.

12. Þvíat vor hrósan er þad, sem er vitnan vorrar samvitsku, at ver hösum framm farid í veröldenne í einfalldleika og Guds grandvarlegleika, eigi í holldlegre vitsku, helldur í Guds nád, enn einna mest hiá ydur.

13. Því ver skrifum ydur eige annad til, enn þad þer lesid og reynid; enn eg vona, at þer munud reyna oss svo allt til endeloka.

14. Svo sem þer hafid og reynt oss at nockorre álfu, at ver erum ydar hrósan, líka svo sem þer erud og vor hrósan, á dege Drottins vors Jesu.

15. Og med þvílíku trauste þeinkte eg einusinne til ydar at koma, uppá þad þer medtækud aftur at nyu einn velgerning.

16 Og at eg ferdadest fyrer ydur í Macedoniam, og kæme úr Macedonia aftur til ydar, og verde svo af ydur á veg leiddur til Judeam.

17. Enn! hefe eg óstödugllynde framid, þá eg hugleidde slíkt, eda er minn ásetningur holldlegur? eige svo, helldur hiá mer er já, já, og nei, nei.

18. Enn trúlyndur er Gud, þar fyrer hafa vor ord til ydar været óvalt.

19 Þvíat sá lærdómur um Guds son Jesum Christum, sá fyrer oss er á medal ydar predikadur, fyrer mig og Silvanum, og Timotheum, hann var eigi fallvaltur, helldur var hann óumbreitanlegur í honum.

20. Þvíat öll Guds Fyrerheit eru fyrer hann vorden óumbreitanleg og fyrer hann upfylt, Gude til dyrdar fyrer oss.

21. Enn Gud er sá sem oss stadfester ásamt ydur í Christo, og oss hefir smurt.

22. Og innsiglad, og gefed andann til pants í vor hiörtu.

## 2. Capitule.

1. Og eg ákalla Gud til vitnis, og mína sál, at eg þyrmde ydur í því, at eg kom eigi aftur til Corinthum.

2. Eige at ver seum Drottnar yfer ydarre trú, helldur erum ver tilhiálpendur ydars fagnadar, þvíat þer standed faster í trúnne.

3. Eg þeinkte og med siálfum mer þad, at koma eigi aftur til ydar med hrigd.

4. Því ef svo er, at eg hrigde ydur, hver er hann þá sá mig

gledur, utan sá sem af mer verdur hriggur gerdur?

5. Og þad hid sama skrifade eg ydur, svo at eg þyrfte eige hriggur at vera, þá eg kæme, af hverri eg ætte med rettu þó glad-ur at vera, med því at eg treyste þess til ydar allra, at minn fögnudur se allra ydar fögnudur.

6. Þvíat eg skrifade ydur til í mikillre hriggd, og trega míns hiarta, med mörgum táraföllum, eigi at þer skylldud hrigger verda, helldur at þer skylldud þeckia þann kærleika, sem eg hefi yfersliótanlega til ydar.

7. Enn ef einhver hefir hrigd af stad komed, sá hefir eige mig hriggt, utan einasta at nockoro leite, uppá þad, at eg þyngde ydur eige öll-um.

8. Enn þad ánæger, at sá same er af mörgum svo straffadur.

9. Uppá þad þer fyrergefed hönum nú hedan af því framar, og huggan veited, svo at hann sockvest eige í ofmikla hriggd.

10. Hvar fyrer eg beide ydur, at þer andsynid á hönum kærleik.

11. Því fyrer þad skrifade eg ydur til, at eg kende ydar raun hvert þer værud hlyduger í öllum greinum.

12. Enn hverium sem þer fyrer-gefed nockud, þeim fyrergef eg og. Því eg einninn, ef eg fyrer-gef nockrum eitthvad, þad fyrer-gef eg ydar vegna í Christi stad.

13. Svo at ver verdum eigi tælder af andskotanum; þvíat oss er eige óvitanlegt, hvad hann hefir í skape.

14. Enn þá eg kom til Troada at predika Christi evangelium, og mer vorn dyr upploknar í Drott-ne.

15. Hafde eg eige hvíld í mín-um anda, þá eg fann eige Titum mínn brodur, helldur gerde eg minn skilnad vid þá, og fór burt til Macedoniam.

16. Enn Gude sie þacker, sá alla tíma gefur oss sigurinn í Christo, og fyrer oss opinnberar ylminn síns kynningar í öllum stödum.

17. Þvíat ver erum fyrer Gude god ylming í Christo, bæde á medal þeirra sem hiálpast, og medal þeirra sem fortapader verda.

18. Þessum ylmur daudans til dauda; enn hinum ylmur lífsins til lífs. Og hver er hæfileg-ur til þessa?

19. Þvíat ver erum eige svo sem marger adrer, þeir Guds ord falsa, helldur svo sem af kærleika, og svo sem af Gude, telum ver, fyrer Guds augliti í Christo.

## 3. Capitule.

1. Tökum ver enn aftur til at hæla sjálfum oss? eda þurfum ver ílka svo sem nockorer hólsbrefa vid til ydar, edur hólsbrefa af ydur?

2. Þer erud vort bref, skrifad í vorum hiörtum, sem audkennt og lesid verdur af öllum mönn-um.

3. Þer sem, auglyster erud vordner, at þer erud bref Christi, tilreidder fyrer predikunar em-bætte, og af oss skrifader, eige med bleke, helldur med anda Guds lifande; eigi á steinspiölldum, helldur á holldlegum spiölldum hiart-ans.

4. Enn slíkt traust höfum ver fyrer Christum til Guds.

5. Eige svo at ver sem af oss

siá

siálfum nyter nockud at hugleida, svo sem af siálfum oss til, helldur ef ver erum nyter, þá er þad af Gude.

6. Sá oss gerde nyta, framm at flytia embætte hins nya testamentis, eigi bókstafsins, helldur andans, þvíat bókstafurinn deyder, enn andenn lífgar.

7. Enn fyrst þat embætte sem fyrer bókstafena deyder, og á steinum er grafed, hafde svoddann liósma, svo at Israels börn gátu eigi litid gegn ásiónu Moyses, fyrer liósma sakir hans andlitis, sem þó var forgengelegur.

8 Því skyllde þá eigi miklu meir þat embætte, sem andann gefur, liósma hafa?

9. Þvíat ef þat embætte sem fyrerdæminguna predikar, er dyrdlegt, miklu framar hefir þá þat embætte, sem rettlætid bodar, yfergnæfanlega dyrd.

10. Þad meira er, hinn annar liómi er sem enginn liómi í till ti þess yfergnæfanliga liósma.

11. Því fyrst þat sem skal taka enda hafdi liósma, hversu miklu framar mun þad sem stödugt blífur eigi hafa liósma.

12. Af því ver hösum nú slíka von, þá hösum ver stóra diörfung.

13. Og gerum eigi svo, sem Moyses gerde, hann sem hengde huldu fyrer sína ásiónu vegna þess at Israels börn megnudu eigi at siá gegn henne til þess hennar forgengilegi liómi hvarf.

14 Þá voru þeirra hugskot forherdt.

15. Þvíat allt til þessa dags henger yfer þeim gamla testamála, þá hann verdur lesenn, sú gamla hulda, hver eigi kann at afdragast útan alleina fyrer Christum.

Já allt til þessa dags henger hulda yfer þeirra hiörtum þegar Moyses verdur lesenn.

16. Ef þeir sneru ser til Drottins, svo yrde sú hulda burttekin.

17. Því Drottinn er ande, enn hvar ande Drottins er, þar er frelsi.

18. Enn nú skodum ver aller dyrdu Drottinns, svo sem í skuggsió med óhuldre ásiánu, og verdum svo í þeirri sömu mind upplyster, frá einne dyrdu til annarar, svo sem af Drottinns anda.

## 4. Capitule.

1. Hvar fyrer, á medann ver hösum nú svoddan embætti, ut ver miskunseme þat til ödlumst, þá þreytumst ver eigi.

2. Helldur umflyum ver leynelegar skammer, og förum eigi med slæskap, fölsum og eigi Guds ord, helldur med sannleikans opinberingu, og audsynum oss hæga vid allar samvitskur manna fyrer Gude.

3. Er nú vort evangelium hulid, þá er þat hulid þeim sem fortapader verda.

4. Í hverum Gud þessarar veralldar hefir forblindad hugskot vantrúadra, svo þeir siáe eigi þat klára evangelii liós Christi liósma, hvered er Guds retta smind.

5. Þvíat ver predikum eigi siálfa oss, helldur Jesum Christum, hann sé Drottinn, enn ver vorer þiónar Jesu vegna.

6. Þvíat sá Gud, sem liósinu baud úr myrkrenu at skyna, hann gaf eitt klárt skyn í vor hiörtu, svo at fyrer oss framkæme upp-

lýsing af þeckingu Guds biartleika, í audlite Christi Jesu.

7. Enn þennann fiesiód høfum ver í leyrkerum, svo at sá yfergnæfanlege kraftur se Guds, og eigi af oss. Alla vega líðum ver harma, enn ver hrigginnist þó eigi.

8. Oss veiter torvelldt, enn ver örvilnumst eigi; ver líðum ofsókn, enn ver verdum þó eigi yfergiefner.

9. Ver verdum nidurþricktir, enn ver fyrerfórumst eigi.

10. Og ætíd berum ver med oss dauda Drottins Jesu á vorum líkama, svo at og einninn líf Drottins Jesu opinbert verde á vorum líkama.

11. Þvíat ver sem lifum, verdum jafnan í daudann selldir Jesu vegna, svo at einnenn líf Jesu opinbert verde á vorn daudlegu holldi.

12. Fyrer því er nú daudenn máttugur í oss, enn lífid í ydur.

13. Enn med því ver høfum þann sama trúarennar anda, efter því sem skrifad er: Eg trúde, og fyrer þat tala eg: og ver trúum, fyrer því tølum ver og einnenn.

14. Og vitum þat, at sá sem Drottinn Jesum hefir uppvakid, at hann mun oss og uppvekia fyrer Jesum, og mun skicka oss med ydur.

15. Þvíat allt þetta sker ydar vegna, svo at sú yfergnæfanlega nád, fyrer margra þackargerd, vegsame Gud ríkuglega.

16. Fyrer því þreytumst ver eigi, helldur, þó at vor ytre madur fordiarfist, þá mun þó sá hinn innre dag frá dege endurnyast.

17. Þvíat vor hriggd, sem stundleg og lett er, gerer oss einn eylífa og yfer allann mata mikla dýrd.

18. Oss, sem eigi áskium hid synelega, helldur hid ósynelega, þvíat hvad synelegt er, þat er stundlegt, enn hvad ósynelegt er, þat er eylíft.

## 5. Capitule.

1. Því ver vitum at þó þetta jardneska hús vorrar tialldbúdar verde nidurbrótid, at ver høfum bygging af Gude uppbygda, hús, eigi med høndum gert, þat æfinnlegt se á himnum.

2. Og þar efter andvarpum ver einnenn, efter vorre Byggingu sem er á himnum, gyrnandist henne at yferklædast,

3. Þó svo, at ver seum klæddir, og eigi nakter fundner.

4. Þvíat medann ver erum í tialldbúdinne, þá forlenger oss, og erum þyngder, af því ver villdum feaner eigi afklæddir, helldur yferklæddir verda, uppá þat hid dauðlega burt svelgest af lífenu.

5. Enn hann sem oss bió til þess hins sama, er sá Gud, sem oss gefed hefir andann í pant.

6. Enn jafnann þá erum ver med gódu gede, og vitum þat, at med því ver byggium í þessum líkama, þá erum ver í fiarlægd frá Drottne.

7. Því ver gengum í trúnne, og eigi í skodunnenne.

8. Enn ver erum med gódre hughreyste, og høfum mikla meire lyst til at vera fiarlæger líkamanum, og heima hiá Drottne.

9. Fyrer því kostgæfum ver vj/

einnenn, hvert ver erum heima eda fiarlæger, at ver kynnum at vera hønum þocknanleger.

10. Þvi ver hliótum aller at opinberast fyrer dómstóle Christi uppá þat, at hver einn ødlest efter þvi hann hefir athafst í líkamans lífe, se þat íllt eda godt.

11. Med þvi, at ver vitum, at Drottinn ber at ótiast, þá førum ver í hægd at vid lydenn, enn Gude erum ver opinberer; eg vona og einnenn, at ver seum og í ydrum samvitskum opinberer.

12. Þvi ver lofum oss eigi siálfa at nyu, helldur at ver gefum tilefni at hrósa oss, uppá þat þer hafid nockorn at hrósa í móte þeim, sem hrósa ser efter ásynd, og eigi eigi efter hiartanu.

13. Þvi erum ver høfluger, svo erum ver þat Gude; erum ver hógláter, þá erum ver ydur hógláter.

14 Þvíat Christs kærleike þvingar oss, af þvi ver hølldum þat þarfyrer, fyrst at einn hefir fyrer alla dáed, þá sen þeir aller dauder.

15. Og þvi hefir hann fyrer alla dáed, svo at þeir sem lifa, lifi eigi siálfum ser her efter, helldur hønum sem fyrer þá hefir dáid og uppaftur rísid.

16. Þar fyrer þeckium ver nú her efter engann efter holldenu. Þó at ver høfum einnenn þeckt Christum efter holldenu, þá þeckium ver hann þó nu svo eigi lengur.

17. Þar fyrer se nockur í Christo, þá er hann ny skepna. Hid gamla er umlidid, siáed, aller hluter eru nyer ordner.

18. Enn allt þat er af Gude, hver oss forlíkade vid siálfann sig fyrer Jesum Christum, og gaf oss þetta embætte, sem predika sáttina

19. Þvi Gud var í Christo og forlíkade heimenn vid siálfann sig, tilreiknande þeim eigi sínar synder, og hefir uppreist vor á medal ordid af forlíkuninne.

20. Svo erum ver nú sendebodar í Christi stad, þvíat Gud áminner fyrer oss, þar fyrer bidium ver ydur í Christi stad: látid forlíka ydur vid Gud.

21. Þvi hann hefir þann sem af engre synd vissi, fyrer oss at synd gert, uppá þat, ver yrdum í hønum þat rettlæti, sem fyrer Gude gilldir.

## 6. Capitule.

1. Enn ver áminnum ydur, sem medhialpara, at þer medtaked eigi Guds nád til ónytis.

2. Þvi hann seger: Jþægann tíma heyrde eg þig, og á dege hiálpræðesins, hiálpade eg þer, siáed, nú er sá þægelege tíme, nú er dagur hiálpræðesins.

3. Látum oss þvi eigi nockurstadar gefa nockorum hindran, at vort embætte verde eige lastad.

4. Helldur audsynum oss siálfa í øllum hlutum, svo sem Guds þenara, í mikille þolinmæde, í harmkvælum, í háskasemdum, í þyngslum

5. Jhúdstrokum, í fiotrum, í upphlaupum, í erfide, í vøkum í føstu.

6. Jhreinlífe, í vitskunum, í bidlundargede, í hogværd, í Helgum Anda, í falslausum kærleika.

7. Í sannleiksins orde, í Guds krafte, fyrer herklæde rettlætesins, til hægre og vinstre handar.

8. Fyrer vegsemd og vandsemd, fyrer vanrikte og godt rikte, svo sem falsarar, og þó sannarleger.

9. Svo sem ókunnuger, og þó kunnuger, líka svo sem þeir deya; og sjáed, at ver lifum, svo sem hegnder, og þó eigi líflátner.

10. Svo sem syrgendur, þó jafnann glader; svo sem volader, enn þó þeir, sem marga auðga; líka sem þeir ecke hafa, og þó hafa alla hlute.

11. O! þer menn i Corintho, vor munnur hefir sig opnad til ydar; vort hiarta er gladt; vorra vegna þurfed þer eige hrigger at vera.

12. At þer erud hrigger, það erud þer af ydur siálfum innbirdis.

13. Til verdugs endurgialds (eg tala til ydar svo sem til minna barna) vere ydar hiörtu nú gladvær.

14. Toged eige annarlegt ok med vantrúudum, þvíat hvera hluttöku hefir rettlætid med ranglætenu? Eda hvert samlag hefir liósid vid myrkurinn?

15. Hvernen kann Christo at koma samann vid Belial? eda hvert hlutskifte hefir trúadur med vantrúudum?

16. Hvera samsinning hefir Guds mustere vid skúrgoden? enn þer erud mustere Guds lifanda, ettir því sem Gud seger: eg mun búa í þeim, og gánga i þeim, eg mun og vera þeirra Gud, og þeir skulu minn lydur vera.

17. Þar fyrer, gánged út frá þeim, og skilied ydur, seger Drottenn, og snerted eige það óklárt er, þá mun eg medtaka ydur.

18. Og vera ydar fader, og þer skulud vera míner syner og dætur, seger Drottenn almáttugur.

## 7. Capitule.

1. Med því ver höfum þvílíkt fyrerheit, miner kæruslu, þá látum osś hreinsa osś af allre saurgan holldsins og andans, og áframmförum med helguninne i Guds ótta.

2. Medtaked osś: engum gerum ver mein; engum gerum ver skada; engann drögum ver á tálar.

3. Þetta sege eg ydur, eigi til at fordæma ydur, þvíat eg hefe ádur sagt, at þer erud i vorm hiarta, til at deya med, og at lifa tilsamans.

4. Í större diörfungu tala eg vid ydur; margu hrósa eg af ydur; uppfylltur em eg huggunar; yfergnæfanlegur em eg i sögnude í allre vorre hriggd.

5. Því þá ver komum til Macedoniam, hafde vort holld enga ró, helldur i öllu lidum ver hriggd, hid ytra baráttu, hid innra ótta.

6. Enn Gud, sá sem huggar þá fyrerlitlegu, hann huggade osś fyrer tilkomu Titi.

7. Enn eige alleinasta fyrer hans tilkomu, helldur einnenn fyrer þá huggan, hvar med hann var af ydur huggadur, kunngere osś ydar forlenging, ydar tár, ydar vandlæting um mig, svo at eg gledde mig enn meir.

8. Því þó at eg hrigde ydur

med brefinu, idrar mig eigi: þó mig ángrade þad (þvi eg se, at þad bref hefir at eins um stundarsaker hriggt ydur).

9. Svo gled eg mig nú þó, eige af því at þer erud hrigger, helldur at þer urdud hrigger til iðranar, þviat þer erud gudlega hrigger ordner, svo at þer fengud engann skada af oss, i nockru þad.

10. Þviat sú hriggd sem er af Gude, verkar idran til hiálprædis, hvers engann idrar; enn þessa heims hriggd verkar dauda.

11. Siáid þad, at þer erud gudlega hrigger ordner, hvera kostgæfne þad hefir med ydur verkad, þar at auk forsvar, reide, otta, forlengíng, vandlæting, hefnder, og i ollum hlutum þa hafid þer audsynt ydur, at þer erud skírer i verkenu.

12. Fyrer því, þó at eg skrifade ydur til, þá er þad eige hans vegna sked, sem rángindé framde, og eige hans vegna, sem á er leid, helldur þess vegna, at ydar kostgæfne vid oss opinberude hia ydur, fyrer Gude.

13. Af því, þá erum ver huggader, at þer erud huggader: enn þó hofum ver yfer allt framm gladt oss meir yfer fognude Titi, þviat hans ande er at nyu endurnærdur af ollum ydur.

14. Því hvad eg hefe hrósad af ydur fyrer honum, þar fyrer þarf eg eige at skammast mín, helldur, líka svo sem allt þad er sannleike, sem eg hefe vid ydur talad, svo er og einnenn vor hrósan hiá Tito, sannleikur ordenn.

15. Og honum er af hiarta allmiogiss vel til ydar, þá er hann hugleider hlydne allra ydar, hvernenn þer hafed med hrædslu og otta hann medtekid.

16. Eg gled mig og, at eg má alls til ydar treysta.

## 8. Capitule.

1. Eg kungiöre ydur, kærer brædur, þá Guds nád, sem gefen er þeim sofnude i Macedonia.

2. Þviat þeirra fognudur var þá yfergnæfanlegur, þá tid þeir urdu fyrer mórg harmkvæle reyndér, og þó at þeir væru næsta fátæker, þá hafa þeir þó ríkuglega gefid i ollum einfalldleik.

3. Þviat efter ollu megne, þad vitna eg, og yfer megn framm voru þeir siálfviluger.

4. Og beiddu oss med morgum áminningum, at ver medtækium þá gódgerd og samlag stirks þess, sem Heilogum þar veitest.

5. Og eige sem ver vonndum, helldur gáfu þeir i fyrstu siálfa sig Drottne, og oss efter þad, fyrer Guds vilia.

6. At ver hlytum at áminna Titum, at efter því, hvad hann hafde ádur upphafed, svo skyllde hann og fullenda slíka velgerd ydar á medal.

7. Enn líka sem þer erud ríker i ollum hlutum, i trúnne, i ordenu, i skilningenum, og i allre kostgæfne, og i ydrum kærleika til vor, svo afreked einnenn, at þer seud og einnenn ríker i þessare velgerd.

8. Eg sege eige, sem bióde eg nockud, helldur med því at hinér ydrer eru svo kostgæfer, þá reine eg ydvarn kærleika, hvert hann er af rettre art.

9. Þvi þer vited nád Drottins

inß vors Jesu Christi, at þó hann, þe rikur, vard hann þó fátækur, ydar vegna, uppá þad þer yrdud fyrer hans fátækt audnger.

10. Og nú rád gaf eg í þessu, þvíat þetta er ydur nytsamlegt, þer sem upp hafed byriad fyrer tólf mánudum, eige einasta gerningenn, helldur lafinel viliann.

11. Þvó fullkomnid nú og einnenn gerninginn, uppá þad, lika sem þad, at þar er tilhneigenn, legt. sinne til at vilia, svo se þar og einnenn tilhneigianlegt finne til gerningsins, af því sem þer hafed til.

12. Þvó fyrst einn er gódvilidur, þá er hann þacknæmur, efter því sem hann hefir til, enn eigi eſter því sem hann hefir eige.

13. Eige sker þad í þá meining, at adrer hafe hvíld, enn þer hrelling, helldur at þad se iafnt.

14. Svo þióne ydar gnægd þeirra þurft, í þessare hallæris tíd, uppá þad, at þeirra gnægd efterá þióne ydvarre þurft, og þad, sem jafnadur er, mætte ske.

15. Sem skrifad er: sá miklu safnade, hann hafde ecke afgángs, og sá litlu safnade, hann hafde enganu brest.

16. Enn Gudi sen þacker, sem slíka fyrerhyggu hefir gefed í hiarta Titi til ydar.

17. Þvíat hann medtók at sönnu þá áminning; enn med því hann var svo miøg kostgæfenn, er hann af frium siálfs eigenn vilia til ydar farenn.

18. Enn ver sendum med honum einn brédur, hann sem lof hefir í evangelio af allre samkundunne.

19. Og eige alleinasta þad, helldur er hann einnenn skickadur af samkundunne, oss til forunauts, til þessarar velgerdar, sem fyrer ois veldur samanfsfund, Drottne til sæmdar, og ydrum gódum vilia til athallds.

20. Og at gæta þess, at eingin mætte efter oss sega neckud vondt, slíkrar audugrar hiálpar vegna, sem fyrer oss verdur fram aun bregen.

21. Og stá til, at þad fære sæmelega, eige alleina fyrer Drottni, helldur einninn lika fyrer mönnum.

22. Svo hofum ver og sendt med honum brédur vorn, þann ver hofum oft reynt í morgum greinum, at hann se kostgæfenn, enn nú miklu kostgæfnare. Og ver hofum miked traust á ydur.

23. Se þad Titi vegna sem er minn lagsmadur og hiálparmadur ydar á mille eda vegna vorra brædra hverer eru postular samkundanna, og dyrdar Christi,

24. Fyrer því gefed bevísadann kærleika og vora hrósan frá ydur, vid þessa, einninn í anglite safnadarins.

## 9. Capitule.

1. Þvíat um þessa hiálp, sem þeim Heilogu sker, er mer eige þorf at skrifa ydur til.

2. Þvíat eg veit ydvarn gódann vilia, hvar af eg hrósa hiá þeim úr Macedonia, og sege at Achaia er fyrer sielf mánudum reidubúenn, og ydvart efterdæme hefir marga tilknúed.

3. Enn eg hefe af því þessa

brædur sendt, svo at vor hrósan af ydur yrde eigi at engu, í þeirre, og þer seud reidubúner, Iſka svo sem eg hefe sagt af ydur.

4. Svo at, ef þeir úr Macedonia kæmu med mier, og fyndu ydur óvidurbúna, at ver, eg vil eige sega þer, verdum til skammar, med slíkre hrósan.

5. Enn eg hefe álitid þad fyrer gagnlegt, at áminna brædurnar, at þeir færu fyrst til ydar, at reidubúa þessa ádur lofada blessan at hún se til reidu, svo þad se ein blessan, enn eingin ágyrne.

6. Því eg meina, at hver hann sáer sparlega, sá mun sparlega uppskera, og hver hann sáer í blessan, sá mun og einnenn í blessan uppskera.

7. Hver einn efter sínum efnum, eige med óyndia ed kúgan. Þvíat hírann giafara hefir Gud ser kærann,

8. Þvíat Gud er máttugur at gera, at allshátted nád se gnógleg medal ydar, svo at þer hafed alls gnægd í øllum hlutum, og seud ríker til allra gódra verka.

9. Svo sem skrifad er: hann utdreifde og gaf fátækum: hans rettlæte blífur um allder allda.

10. Enn sá sem fæded gefur Kornsædaranum, sá mun og gefa brauded til fædslu, hann mun og margfallda ydart sæde, og aukast láta ávøxtinn ydvars rettlætis.

11. At þer seud audguger í øllum hlutum, med øllum einfalldleik, sem gerer Gude þacker fyrer oss.

12. Þvíat sú útgift þessarar hiálpar uppfyller eigi einasta skort heilagra, helldur yfer gnæfer hún einnenn í því, at marger þacka Gude.

13. Fyrer þessa vora trúa þiónustu, og prísa Gud, yfer ydvare hlydugre vidurkenningu Christi gudspialla, og yfer ydvare einfalldre hialparstod til þeirra, og til allra.

14. Og yfer þeirra bænum fyrer ydur, hvera forlenger efter ydur, fyrer saker þeirrar yfergnæfanlegrar Guds nádar, sem í ydur er.

15. Enn Gude seu þacker fyrer sína óumrædelega gáfu.

## 10. Capitule.

1. Enn eg Páll beide ydur fyrer hógvære og þolinmæde Christi, eg sem í nálægd er lítils virdtur, ydar á mille, enn í fiarska em eg diarfur vid ydur.

2. Enn eg bid ydur, at mer se eige þørf nálægum diarflega at handla, og þá diørfung framme hafa, sem mer verdur tilløgd vid suma, þeir oss akta, sem gengum ver efter holldsins vlagsid.

3. Því þó ver gengum í hollde nu, þá strídum ver þó eige á holldlegum vlagsid

4. Þvíat hervopn vor eru eige holldleg, helldur máttug fyrer Gude, til nidurbrots hervirkanna, hvar med ver nidurbrióttum þanka áfetning.

5. Og alla hæd, sem sig upphefur gegn Guds vísdóme, og at herfánge tøkum alla skinsemd, undir Christi hlydne.

6. Og erum reidubúner at hefna allrar óhlýdne, þá ydar hlydne er uppfylld.

7. Dæmed þer efter álitenu? treyster nockur þar at hann se Christi, þá þeinke sá þar á móte,

einnenn þetta, hiá siálfum ser, at líka sem hann heyrer Christo til, svo heyrum ver einnenn Christo til.

8. Og þó at eg hrósade mer nockud framar út af vorre magt, sem Drottinn hefir oss gefed, ydur til betrunar, og eige til fordiorfunar, þá munde eg þó eige til skammar verda.

9. Enn þetta sege eg, uppá þad, þer látid ydur eigi þykia sem hefde eg viliad skelfa ydur med brefum.

10. Þvíat þaug bref, sega þeir, eru þung og sterk, enn nálægd líkamans er veik, og málid er fyrirlítlegt.

11. Hver þess konar er, hann þeinke, at líka svo sem ver erum med ordum i brefunum í fráverunne, svo dirfumst ver einnenn at vera med gerningunum i nálægd eme.

12. Þvíat ver dirfumst eige at reikna oss edur telia medal þeirra, sem sig siálfa lofa. Enn med því þeir meta sig hiá siálfum ser, og hallda sva einasta af ser siálfum, þá underſtanda þeir ecke.

13. Enn ver hrósum oss eige yfer mát framm, helldur alleinasta efter mælingu þeirrar reglu, hvar med Gud hefir oss þann skamt meted, at geta nád einnenn allt til ydar.

14. Því ver forum eigi oflangt í frá, svo sem hefdum ver eigi nád getad allt til ydar, því ver erum komner allt til ydar med Christs evangelium.

15 Og hrósum oss eigi framyfer mælingu í annarlegu erfide. Og vonum, at nær ydar trú vex nú i ydur, at ver skulum þá vídara komast, efter vorre reglu,

16. Og predika einnenn evangelium þeim, sem hinumegenn ydar búa, og hrósa oss eigi af því, sem med annarlegre reglu er tilbúed.

## 11. Capitule.

1. Enn hver ser hrósar, sá hróse ser í Drottne.

2. Því fyrer þat er eingenn dugandlegur, at hann lofar sig siálfur, helldur at Drottinn lofar hann.

3. Gæfe Gud, þer hélldud mer lited eina fávisku til góda; þó þer hallded hana vel til góda.

4. Því eg vanda um vid ydur med gudlegu vandlæte. Því eg hefe fastnad ydur einum manne, svo at eg í hreinu ſellde Christo eina skíra mey.

5. Enn þat óttumst eg, at líka sem höggormurenn tælde Evu med sínu slæræde, svo líka mege og burt slitast ydart hugskot, frá þeim einfalldleik sem er í Christo.

6. Því ef sá same sem til ydar kemur, predikade einn annann Jesum, þann ver hofum eigi predikad; eda ef þer medtakid annann anda, þann þer hefdud eigi medteked, ellegar annad evangelium, þat þer hofdud eigi medtekid, þá umlidud þer þat rettelega.

7. Því eg helld, at eg se eige minne, enn þeir hiner ædre Postular eru.

8. Og þó at eg se fáfródur í máte, þá em eg þó eige fáfródur í skilninge. Því eg em hiá ydur alldungis vel kendur.

9. Eda hefe eg syndgad í því at eg minkade mig, svo at þer upp-

hefdust? Þvíat eg hefe kunngjort ydur evangelium fyrer ecke.

10. Og eg hefe rænt adrar samkundur og vered launenn frá þeim teked, at eg predikade ydur.

11. Og þá eg var hiá ydur nálægur og mig skorte, var eg engum þúngur, því mína naudþurft uppfylltu þeir brædur, sem komu af Macedonia; og í ollum hlutum gætta eg mín, at vera útan þýngsla vid ydur, og eg vil enn nú halda mig svo hedan í frá.

12. Því svo sannarlega sem Christs sannleikur er í mer, þá skal mer þesse hrósan í lande Achaia eigi tilstíflud verda.

13. Hvar fyrer? At eg eigi skyllde elska ydur? Gud veit þat.

14. Enn hvad eg gere og vil gera, þat gere eg fyrer þat, at eg afskére þeim þat tilefue, sem tilefnis fara á leit, at þeir mætti hrósa ser; at þeir seu svo sem ver.

15. Þvíat þess háttar falspostular, og sviksaler erfidismenn, gera sig at Christi Postulum.

16. Og þat eru eigi undur, því sjálfur andskótenn umsnyr ser til ljóssens engels.

17. Fyrer þat er þat engi furda, þó at hans þenarar umvende ser einnenn, svo sem væru þeir rettlætesins þenarar, hverra enda lok munu verda efter þeirra verkum.

18. Eg sege uss enn aftur, at engenn meine, at eg se fávís enn ef eigi er svo, þá medtaked mig sem annann fávísann, svo at eg hrose mer einnenn nockud lited.

19. Hvad eg tala nú, þat tala eg, eigi svo sem í Drottne, helldur svo sem í fávisku, med því ver erum í þessa hrósan komner.

20. Af því marger hrósa ser efter holldenu, vil eg einnenn hrósa mer.

21. Þvíat þer umlíded giarnann fáfroda, med því þer erud sjálfer vitrer.

22. Þer umlíded, þó at nockur hneppe ydur í þrælkan; þó at nockur fesfeæle ydur: þó at nockur take frá ydur; þó at nockur hrokest upp yfer ydur; þó at nockur slée í ydra ásionu.

23. Þetta sege eg efter óvirdingu, svo sem at værum ver breisker vordner. Í hvern heist sem nockur er nú diarfur (eg tala í heimsku) þá em eg einnenn diarfur.

24. Þeir eru Ebresker, eg einnenn. Þeir eru Israelitar; eg einnenn Þeir eru Abrahams sæde, eg einnenn.

25. Þeir eru Christs þenarar, eg tala heimskulega, eg em framar. Eg hefe meir erfidad, eg hefe flere hogg lided, eg hefi oftar fángenn vered, oft í daudans hættu.

26. Af Gydingum hefe eg fimm sinnum fenged fiorutígu slog, einu færra.

27. Þrisvarsinnum em eg húdstrykenr, einu sinne grytter, þrisvar hefe eg skipbrot lided; dag og nótt var eg í siáfar diúpe.

28. Oft þá hefe eg í ferdum vered. Eg hefe vered i háskasemdum til vatns; í háskasemdum medal ræninga; i háskasemdum medal Gydinga; í háskasemdum medal heidinga; i háskasemdum í borgum; í háskasemdum á eydemorku; í háskasemdum á sie;

í háskasemdum medal falskra brædra.

29. Í mædu, og í erfide; í miklum vökum, í húngre og þorsta; í miklum föstum, í kulda og klædleysi.

30. Fyrer útann þat, sem annars tilfellur, sem er, at eg verd daglega ónádadur, berande áhyggiu fyrer öllum söfnudum.

31. Hver er veikur, svo at eg verde eigi veikur? Hver verdur so hneixladur, at eg upphverist eigi?

32. Ef eg skal þó hrósa mer, þá vil eg hrósa mér af mínum breiskleika.

33. Gud og fader vors Drottins Jesu Christi, hver blessadur sé til eylífdar, veit at eg lyg eigi.

34. Í Damasco let landstiórnare kónungsins Areta geyma borgena Damascum, og villde grípa mig.

35. Og eg vard vundenn nidur í korf út um vindáugad, gegnum múrenn, og slapp af hans höndum.

## 12. Capitule.

1. Hrósunenn er mer at sönnu eigi nytsamleg, þó vil eg nú koma vid sióner og openberaner Drottins.

2. Eg þecke einn Christenn, fyrer fiórtan árum; var hann í líkamanum, þat veit eg eigi, eda var hann útan líkama, þat veit eg eigi, Gud veit þat: sá sami verd ricktur allt upp i hinn þridia himenn.

3. Og eg þecke þann mann; hvert hann var í líkama, eda útann líkama, þat veit eg og eigi, Gud veit þat.

4. Hann vard uppricktur í Paradís, og heyrde ómmædeleg ord, þaug sem engenn madur fær út talad.

5. Af þessu vil eg mer hrósa, enn af siálfum mer vil eg eigi hrósa mer, nema af mínum breiskleika.

6. Og þó at eg villde mer hrósa, gerda eg eigi fyrer þat heimskulega, þvíat eg vil sega sannleikann. Enn eg sporna vid því, þar fyrer, at eingenn hallde mig ödru, enn svo sem hann á mer ser, eda af mer heyrer.

7. Og svo at eg stære mig eigi af þessum openberingum, þá er mer gefenn einn fleinn í holldenu, sem er Satans engell, hver mig skule med knefum slá, at eg stære mig eigi.

8. Um hvern eg hefe Drottinn þrisvar beded, at hann vike burt frá mer.

9. Og hann sagde til mín: Láttu þer næga mína nád, þvíat minn kraftur er í breiskum máttugur. Fyrer þat vil eg sem fegnastur hrósa mer af mínum breiskleika, svo at kraftur Christs bygge med mer.

10. Fyrer því em eg med gódu traufte, í breiskleikum, í vanvirdingum, í naudum, í offóknum, í þrenngingum, Christi vegna, því nær eg em breiskur, þá em eg öflugur.

11. Eg em fífl ordenn af þvíað hrósa, til hverrar þer þvingudud mig, því eg átte at leifast af ydur, af því at eg em eingumin minne, enn hiner ædstu Postular, þó at eg se eige.

12. Af því at þar eru Postula teikn gerd ydar á mille, í allre þolennmæde í táknum, í stórmerkium, og kraftaverkum.

13. Hvad er þat, í hvern þer erud minnehattar enn adrar samkundur? Nema alleinasta í því, at eg veitta ydur eigi siálfur neinn þúnga: fyrerláted mer þann glæp.

14. Siáed, eg em reidubúenn í þrida sinn at koma til ydar, og eg vil eigi vera ydur þúngur. Af því eg spyr eigi efter ydar, helldur at ydur, því børnenn eiga enganu and foreldrunum saman at draga, helldur foreldrarner børnunum.

15. Enn eg vil sem fegnastar gefa mig út, og útgefenn verda fyrer ydrar sáler, hversu sem eg elska ydur miøg, og verd þó litt elskadur.

16. Enn láted þat svo vera, eg hafe eigi gert ydur þyngsle, helldur med því eg var slægur, veidda eg ydur med slægdum.

17. Enn hefe eg nockurn á tálar dreged, fyrer einhvern þeirra, sem eg sende til ydar?

18. Eg áminnte Titum, og sende med honum einn bródur. Hefur Titus nockud tælt ydur? Høfum ver eigi í einum anda frammfarid, og í einum fótsporum genged?

19. Láted ydur aftur þykia, at ver forsvørum oss? Ver tølum í Christo fyrer Gude. Enn allt þetta sker ydur (míner kærustu) til betrunar.

20. Því eg óttast, þá eg kem, at eg finne ydur eigi, svo sem eg vil, og þer finned mig eigi, einnenn sem þer viled, at þar se þrætur, agg, stríde, þræta, bakmæl-ge, kvis, hrokaskapur, og óró.

21. Svo at þá eg kem, at minn Gud niderlæge mig enn at nyu hiá ydur, og eg hlióte ecka at lída yfer mørgum þeim, sem ádur høfdu syndgad, og enga yferbót gerdu, fyrer þann óhreinleika, hóraner og bligdurnarleyse, sem þeir hafa framed.

## 13. Capitule.

1. Kome eg í þrida sinn til ydar, svo skal í tveggia edur þriggia þeirra munne standa øll málaferle.

2. Eg sagde ydur þat ádur fyrer, og eg sege ydur þat fyrerframmer, svo sem nálægur, i annad sinn, og skrifa ydur þat nú fiarlægur, þeim sem ádur tilforna høfdu syndgad, og hinum ødrum, ef eg kem aftur í annad sinn, vil eg eigi spara.

3. Af því þer leited efter, at þer einhvern tíma verded varer þess, sem í mer talar, sem er Christur, sem eigi er breiskur ydar á mille, helldur máttugur er medal ydar.

4. Og þó at hann se krossfestur í breiskleika, þá lifer hann þó í Guds krafte. Og þó at ver seum einnenn breisker í honum, þá lifum ver þó med honum í Guds krafte, medal ydar.

5. Reyned ydur siálfa, hvert þer erud í trúnne. Reyned ydur siálfa, eda þecked þer eigi siálfa ydur, at Jesus Christus er í ydur? Nema þat se, at þer seud ódugnanleger.

6. Enn eg vona at þer þecked, at ver erum eigi ódugnanleger.

7. Enn eg bid þess Gud, at þer hafest ecke vondt at, eigi uppá þat, at ver synumst nytsamleger,

helldur uppá þat, at þer gered hid góda, og ver seum svo sem þeir hiner ónyttu.

8. Þvíat ver megum eigi nockud gegn sannleikanum, helldur fyrer sannleikann.

9. Enn ver gledium oss, þá ver erum breisker: enn þer erud máttuger; og þat sama æskum ver einnenn, sem er ydart algerfe.

10. Hvar fyrer eg skrifa ydur slíkt fráverande, svo at eg þurfe eigi, þá eg em nálægur, hardinde framm at hafa, efter þeirre magt, sem Drottinn hefir mer til betrunnar, enn eigi til fordiörfunar gefed.

11. Enn at sidustu, góder brædur, gleded ydur, vered fullkomner, hugged ydur, vered samlynder, vered fridsamer, þá mun Gud ástsemdarinnar og fridarens vera med ydur.

12. Heilsed hver ödrum innbyrdis med heilögum kosse: ydur heilsa aller heilager.

13. Náð vors Drottins Jesu Christi, og Guds kærleike, og samtenging Heilags anda, se med ydur öllum, Amen.

Ender S. Páls Pistills til Corinthumanna.

# S. Pals Pistill til þeirra i Galata.

## 1. Capitule.

1. Páll, eirn postule, eigi af mönnum, ne fyrer menn, helldur fyrer Jesum Christum, og Gud fodur, sá hann uppvakte frá þeim daudu.

2. Og aller þeir brædur sem med mer eru. Söfnudi Guds í Galatia.

3. Náð se med ydur, og fridur af Gude födur, og vorum Drottne Jesu Christo.

4. Sem siálfann sig hefir út gefed fyrer vorar synder, at hann frelsade oss frá þessare nálægar vondre verölldu, efter Guds vilia, og vors fódurs.

5. Hverium se dyrd frá eylífd til eylífdar, Amen.

6. Mig undrar þad, at þer láted svo snart snúa ydur frá þeim, sem ydur kalladi í náð Christi, til eins annars evangelium.

7. Sem þar er þó eige annad. Utan þad, at þar eru nockorer, sem ydur villa, og umsnúa vilia Christi evangelio

8. Enn þó at einnenn ver, eda engell af himne, predikade ydur evangelium ödruvís enn ver höfum predikad ydur, sá se bölvadur.

9. Svo sem ver sögdum nú í stad, svo segium ver aftur at nyu; at ef nockur predikar fyrer ydur ödruvís evangelium, enn hvad þer hafed medteked, se sá bölvadur.

10. Predika eg nú þad mönnum eda Gude til þiónustu? eda þenke eg mönnum þeckur at vera? Því ef eg hefde hingat til mönnum þeckur vered, þá være eg eige Christi þenare.

11. Enn eg kunngere ydur kærer Brædur, at þad evangelium, sem af mer er predikad, er eigi af mønnum.

12. Þvíat eg hefe þad af eng um manne medteked ne lært, helldur fyrer opinberan Jesu Christi.

13. Þvíat þer hafed vel heyrt mitt athæfe fordum daga í Gydingadómenum, hversu eg offókte yfer mata Guds sofnud, og fordiarfade hann

14. Og eg vox í Gydingadóm enum, framm yfer marga mína iafningia í mínu tyne, og var vandlætande yfer máta, fyrer fedranna lógmál.

15. Enn þá þad þóknadest Gude, (sá mig hefir helgad frá minnar módur kvide, og kallad fyrer sína nád.

16. At hann opinberade í mer sinn son, svo at eg skyllde kunngera hann (fyrer evangelium medal heidinna Þióda) þá gaf eg mig þar strax til, og rádgadest eigi þar um vid holld og blód.

17. Og eigi kom eg í Jerusalem, til þeirra sem forer mig voru postular, helldur fór eg burt í Arabiam, og kom svo aftur til Damascum,

18. Efter þad, at þremur árum lidnum, kom eg til Jerusalem, at siá Petrum, og eg dvaldest hiá hónum um fimmtan daga.

19. Enn annann af postulunum sá eg engann, nema Jacobum bródur Drottins.

20. Og þad eg skrifa ydur, siáed, Gud veit at eg lyg eige.

21. Efter þad kom eg í landsálfur Syrie og Cilicie.

22. Enn eg var ókenndur at yferlite Christi søfnudum í Judea.

23. Enn þeir høfdu alleinasta heyrt, at sá oss ádur tilforna offókte, hann predikar nú trúna, hvera hann ádur fordiarfade.

24. Og þeir vegsomudu Gud á mer.

## 2. Capitule.

1. Sídan efter fiórtan ár, fór eg upp aftur til Jerusalem, med Barnaba, og tók einnenn Titum med mer

2. Enn eg fór upp þangat, efter opinberan, og hafde tal vid þá, um þad evangelium, sem eg predikade medal heidinna Þióda, enn serlega þó vid þá, sem ypparleger voru, svo at eg hlype eige forgefens, eda skylde hafa hlaupeð forgefens.

3. Og Titus, sá med mer var, þreyngdest eigi helldur til at láta umskera sig, þóat hann være Grikkur.

4. Þvíat, þá nockorer falsker brædur høfdu ser medal vor inn þreyngt, og þar med lióslega innlædst, til at skoda vort frelse, hvert ver høfum í Christo Jesu, svo at þeir veiddu oss.

5. Þá vikum ver þeim eige eina stund, undergefner at vera, uppá þad, at sannleikur evangelii stadfestest hiá ydur.

6. Enn um þá ypparlegu, hverninn þeir voru fyr meir, vardar mig engu. Þvíat Gud skeyter eige álite mannsins. Enn mer hafa þeir, sem álit høfdu, eige annad kennt.

7. Helldur þar í mót, þá þeir sáu, at mer var tiltrúad þad evangelium til yferhúdarennar, líka svo sem Petre þad evangelium til umskurnarennar.

8. Þvíat sá med Petre ver ord-

enn kröftugur til postula embættis medal umskurnarennar, sá same er med mer ... enn kröftugur ordenn medal heidenna þióda.

9. Og þeir Jacobus, Cephas og Johannes viturkenndu þa náð, sem mer var gefenn, sem syner stólpa voru álitner, gáfu mer og Barnaba sína hægre hönd, og saman tóku med, ad vid prédikudum á medal heidenna þióda, enn þeir á medal umskurdarens.

10. Utann einasta, at ver minnust volaðra, hvad eg lagde allt kapp á at gera.

11. Enn þá Petur kom til Antiochiam, streittiðo eg hönum í móti under augun, þvíat klögun var yfer hann komen.

12. Af því ádur tilforna, enn nockrer komu frá Jacobo, þá át hann med heidingum. Enn þá þeir komu, fordade sér, hann og frá-skilde sig þeim, af því hann óttadest þá umskornu.

13. Og þeir adrer Gydingar hræsnudu med hönum, svo á Barnabas vard og svo afvega leiddur, til at hræsna med þeim.

14. Enn þá eg sá, at þeir gengu eigi rett, eftir sannleik evangelii, sagde eg til Peturs fyrer öllum openberlega: fyrst þú, sem ert Gydingur, lifer sem heidingar, og eige sem Gydingar, hvar fyrer þvingar þú þá hina heidnu til at lifa sem Gydingar?

15. Ver sem af náttúru erum Gydingar, og eige syndarar út af heidnum þióðum.

16. Ver vitum, at madurenn verdur eige rettlátur fyrer lögmálsins verk, helldur fyrer trúna á Jesum Christum. Svo trúum ver og einnenn á Christum Jesum, uppá þad ver verdum rett-látur fyrer trúna á Christum, og eige fyrer verk lögmálsins. Því at fyrer verk lögmálsins verdur ecke hold rettferdugt.

17. Enn skyldum ver, hverer eftirleitum fyrer Christum rett-látir at verda, enn nú friálfer syndugar fundner verda, þá være Christur einn syndaþénare. Þad se fiærre!

18. Enn ef eg bygge þad upp aftur, hvad eg hefe nidurbroted, þa gere eg mig siálfann at yfer-trödslumanne.

19. Þvíat eg em fyrer lögmálid, lögmálenu dáenn, svo at eg life Gude: eg em med Christo krossfestur.

20. Enn eg life, þó nú eige eg, helldur lifer Christur í mer. Því at eg life nú í holldenu, þad life eg í trú Guds sonar, sá mig hefir elskad, og siálfann sig útgefed fyrer mig.

21. Eige stirrt eg Guds nád burt. Því ef fyrer lögmáled kemur rettlæte, þá er Christur forgefens dáenn.

## 3. Capitule.

1. Og þer skynsemdarlauser Galatumenn, hver hefir töfrad ydur, at þer hlyddud eige sannleikanum? hverum þó Jesus Christur var fyrer augum máladur, og nú á medal ydar krossfestur er?

2. Þad alleinasta vil eg nema af ydur, hvert þer hafed meðtekeð andann, fyrer verk lögmálsins, eda fyrer predikun af trúnne?

3 Erud þer svo skynlauser? hvad þer hafed uppbyriad í andanum, vilied þer þá nú í holldenu fullkomna þad?

4. Hafed þer þá lided svo

margt fyrer ecke? ef þad er ann ars fyrer ecke

5. Sá sem ydur gefir andann, og gerer slíka gerninga medal ydar, gerer hann þad þá fyrer verk løgmálsins, eda fyrer predikun af trúnne?

6. Líka sve sem Abraham trúde Gude, og þad er hønum reiknad til rettlætis.

7. Svo vited þer nú þá, at þeir sem trúa, þeir eru Abrahams børn.

8. Enn ritningen hefir þetta ádur tilforna fyrersed, at Gud rettláta gerer hina heidnu fyrer trúna. Af hvørt kunngerde hún þad Abraham: í þer skulu aller heidingar blessader verda.

9. Lika svo munu þeir sem trúarennar eru, blessast med hinum trúada Abraham.

10. Þviat þeir sem eru af løgmálsins verkum, þeir eru under bølvanenne. Því skrifad er: bølvadur se hver sá madur, sem eigi blifur í øllu því, sem skrifad er i løgmáls bókenne, svo hann gere þad.

11. Enn þad, at fyrer løgmálid verde eingenn rettlátur fyrer Gude, þá er þad opennbert. Þviat sá rettláti mun lifa af trúnne.

12. Enn løgmáled er eigi af trúnne, helldur sá madur, sem þad gerer, mun lifa þar fyrer.

13. Og Christus hefir leyst oss fra bølvan løgmálsins, þá hann vard bølvan fyrer oss; þviat skrifad er: bølvadur se hver sá, sem á tre hánger.

14. Svo at blessan Abrahams kome medal heidenna þióda, i Christo Jesu, og at ver medtækum svo fyrerheitenn anda fyrer trúnna.

15. Kærer brædur! eg vil tala efter mannlegum plagad. Einginn forachtar mannsins sidarsta vilia efter þad hann er stadfestur, ne eykur þar vid.

16 Nú eru þó fyrerheiten Abraham og hans sæde tilsøgd. Eige seger hann fyrer sædin, svo sem fyrer mørg, helldur svo sem fyrer eitt. Fyrer þitt sád, hvert er Christur.

17. Enn eg sege, at sá sáttmáli, sem ádur tilforna er stadfestur af Gude, á Christum, verdur eigi ónytur gerdur, svo at fyrerheited skyllde fyrer løgmáled aftakast, hvert gefed er fyrer fiórum hundrudum, og þriatiu árum þar efter.

18. Þvi ef arfleifden yrde fyrer løgmáled afrekud, þá yrde hún eige fyrer fyrerheited gefen, enn Gud hefir fyrer fyrerheited gefed hana Abraham.

19. Hvar til skal þá løgmáled? þad er komed vegna syndarinnar, þángat til þad sæde kæme, hvern fyrerheited var sked, og er tilsett af englunum, fyrer hønd medalgøngu mannsins.

20. Nú er medalgøngumadurenn eige eins einasta medalgøngumadur, enn Gud er einn.

21. Hvernenn þá? er løgmáled gegn Guds fyrerheite? þad se fiærre: enn ef þar være nockud þad løgmál útgefed sem lífgad gæte, sannarlega, þá kæme rettlæted af løgmálenu.

22. Enn ritningenn hefir allt inneluckt under syndenne, svo at þad fyrerheit kæme fyrer trúna á Jesum Christum, og trúndum.

23. Enn ádur enn trúenn kom, vardveittumst ver under løgmále nu, oʒ vorum innelucktir í þeirre trú, sem openber skyllde verda.

24. Svo hefir løgmaled vered vor typtun til Christum, at ver rettlættumst fyrer trúna.

25. Enn nú, at trúenn er komen, þá erum ver eige lengur under þeirre typtun.

26. Þvi þer erud aller Guds børn, fyrer trú á Jesum Christum.

27. Þviat svo marger af ydur, sem erud skirder, þer hafed íklædst Christo.

28. Her er eingenn Gydingur ne Grickur; her er eingenn þrall ne frelsinge; her er eingenn karl ne kvinna; þvi þer erud aller eitt í Christo Jesu.

29. Enn fyrst þer erud Christi, þá erud þer Abrahams sæde, og efter fyrerheitenu erfingar.

## 4. Capitule.

1. Enn eg sege; svo lenge sem erfingenn er barn, þá er á mille hans og þiónsins eingenn greinarmunur, þó at hann se herra alls gódtsens.

2. Helldur er hann under forveriurum og fiarhalldsmønnum, allt til ásetts tíma af fødurnum.

3. Líka einnenn ver, þá ver vorum børn, vorum ver fángader under útvortis setningum.

3. Enn þá uppfylling tímans var komen, útsende Gud sinn son, fæddann af kvinnu, og løgmálenu underrorpenn.

5. Uppá þad, at hann frelsade þá, sem under løgmálenu voru, svo at ver medtækum barnanna útvalgningu.

6. Enn med því þer erud børnen, hefir Gud sendt anda síns sonar, í ydar hiertu, kallande, abba, kæri fader.

7. Svo er her nú eingenn þræll meir, helldur børn ein: enn eru þau børn, þá eru þau einnenn arfar Guds, fyrer Christum.

8. Enn þá þer þecktud eigi Gud, þiónudud þer þeim, hverer af natúrunne eru enger Guder.

9. Enn nú þer hafed Gud þeckt, (já miklu framar erud af Gude þeckter), hvernen vendod þer ydur þá um aptur, til þeirra breiskra og naudþurftugra setninga, hverium þer viled nu aftur at nyu þióna?

10. Þer hallded daga og mánude, helgehølld og ártider.

11. Eg em óttaslegenn um ydur, at eg hafe, kann vera, til einskis erfidad hiá ydur.

12. Vered svo sem eg em, þviat eg em svo sem þer erud. Kærer brædur (eg beide ydur), þer hafed ecki mein mer gert.

13. Þviat þer vited, at eg predikade ydur evangelium, í fyrsta sinn í veikleika efter holldenu.

14. Og mínar freistaner, sem eg leid efter holldenu, fyrerlitud þer eigi, ne forsmádud: helldur svo sem annann Guds engel medtókud þer mig, já, líka sem Christum Jesum.

15. Hvernen vorud þer svo sæler í þat sinn? Eg ber ydur þat vitne, ef mogulegt hefde vered, at þer hefdud ydar augu útslitid og gefed mer.

16. Em eg þá svo ordenn ydar óvinur, at eg sege ydur sannleikann?

17. Þeir vandlæta eigi vel um ydur, helldur vilia þeir gera ydur mer fráſnúna, svo at þer skulud vandlæta um þá.

18. Umvandan er gód, nær hún sker ætíd um hid góda, og eigi

alleinasta þá eg em nálægur hiá ydur.

19. Mín kæru barna korn, þau eg enn nú aftur í annad sinn med ángist fæde, þángat til Christus ímindast í ydur.

20. Enn eg villdi, at eg være nú hiá ydur, og gæte minne rauft umskift, Þvíat eg em efasamur um ydur.

21. Seged mer, þer sem under løgmálenu vilid vera, hafed þer eigi heyrt løgmáled?

22. Þvíat skrifad er: at Abraham hafde tvo sonu, einn af ambáttenne, og einn af þeirre friálsu.

23. Enn sá af ambátenne var, er fæddur efter holldenu. Enn hann af þeirre friálsu, er efter fyrerheitenu fæddur.

24. Þesse ord imerkia nockud. Þvíat þetta eru þeir tveir sáttmálar, einn af fiallenu Sína, sá sem til þrælkunar fæder, hver sad er Agar.

25. Þvíat Agar heiter í Arabia fialled Sína, og nær allt til Jerúsalem sem nú er, og er í þrælkan med sínum børnum.

26. Enn hin Jerúsalem, sem þar uppe er, hún er sú friálsa, hver ad er móder vor allra.

27. Þvíat skrifad er: verd glød hin óbiria, þú sem ecki fæder, briótst framm og kalla, sem eigi ert þúngud, Þvíat hin einsama hefir miklu fleyre børn, enn hún sem manninn hefir.

28. Enn ver, kærer brædur, erum fyrerheitesins børn efter Isaac.

28. Enn líka sem í þann tíma, at sá efter holldenu var fæddur, ofsótte þann sem efter andanum var fæddur, svo gengur þat til nú einnenn.

30. Enn hvad seger ritningen? Rek burt ambáttena og son hennar, Þvíat ambáttarennar sonur skal ecki erfa med syne þeirrar friálsu kvinnu.

31. Svo erum ver nú, kærer brædur, eigi umbattarenner børn, helldur friálsrar kvinnu.

## 5. Capitule.

1. Svo vered nú sløduger í því frelse, med hvern Christur hefir frelsad oss, og láted eigi færa ydur aptur í þat þrældóms ok.

2. Siáed, eg Páll seger ydur þat: Ef svo er, at þer látid umskera ydur, þá er Christur ydur eigi nytur.

3. Eg vitna enn aftur serhverum manne, sem sig lætur umskera: at hann er enn nú allt løgmáled skylldur at gera.

4. Þer hafed misst Christum, sem fyrer løgmáled viled rettlátet vera, og erud nádenne frafallner.

5. Enn ver vonum í andanum, fyrer trú, þess rettlætis, sem menn eiga at vona.

6. Þvíat í Christo Jesu gillder hverke umskurn ne yferhúd nockud, helldur sá trú, sem fyrer kærleikann verkar.

7. Þer hlupud fínlega: hver aftrade ydur sannleiknum at hlýda?

8. Þessar umtølur eru eigi af honum, sem ydur hefir kallad.

9. Líted súrdeig fyrer allt deiged.

10. Eg vænte þess til ydar í Drottne, at þer munud eigi ødruvís sinnader vera. Enn hver ydur viller, sá mun bera sinn dóm, hver helst sem hann er.

11. Enn eg, kærer brædur, ef eg predika enn nú umskurnena, hvar fyrer líd eg þá offsókner? Þá hefde krossens hneixlan dvínat.

12. Gæfe Gud at þeir yrdu og upprætter, sem ydur eydeleggia.

15 Enn þer, kærer brædur, erud til frelses kallader, einasta stáed svo

fil, at þer gefed fyrer frelsed holld, enu ecki rúm, holldur þá þióne hver ødrum í kærleika.

14. Þvíat øll løg verda í einu orde uppfyllt, í því: Elska þinn náunga sem siálfan þig.

15. Enn ef svo er, at þer tønnled og upeted hver annan innbyrdis, þá siáed til, at þer verdid eigi innbyrdis uppsvelgder.

16. Því sege eg, gánged í andanum, þá munud þer eigi fullkomna holldsins gyrnder.

17. Því hollded gyrnest móte andanum, og andenn móte hollde nu. Og þesser eru hver móte ødrum, svo þer geted egi gert, hvad þer vileð.

18. Enn ef andenn stiórnar ydur, þá erud þer eigi under løgmálenu.

19. Enn holldsins verk eru opennber, svo sem er, hordómur, frillulifnadur, saurlífe, lausung,

20. Skúrgodadyrdkan, fiolkinge, fiandskapur, þráttan, kíf, reide, ágreiningur, tvídrægne, flockadráttur,

21. Hatur, mord, ofdryckia, ofát, og þessu líkt, af þveru eg hefe ádur fyrre sagt, og sege enn nú fyrrr; at þeir somu, sem slíkt gera, munu eigi erfa Guds ríke.

22. Enn ávøxtur andans er: kærleike, føgnudur, fridur,

23. Polennmæde, blídleike, gódgyrne, trú, hógværd, hreinlífe, gegn slíku er løgmáled.

24. Enn þeir sem Christo tilheyra, þeir krossfesta sitt holld gyrndum og tilhneigingum.

## 6. Capitule.

1. Ef ver lifum í andanum, þá gøngum og einnenn í andanum. Verum eige ágiarner hegóma dyrdar, hver annann innbyrdis at reita og øfunda.

2. Kærer brædur! ef madur verdur á nockurn hátt af nockrum breste yferfallenn, þá leidretted hann med hógværum anda, þer sem erud andleger, og haf gát á siálfum þer, at þú verder eigi einnenn freistadur.

3. Einn bere annars byrde, og svo munud þer uppfylla Christi løgmál.

4. Enn ef einhver lætur ser þykia, at hann se nockud, sem hann er þó eige, sá tæler siálfann sig.

5. Enn hver einn reyne sín eigen verk, og þá mun hann á siálfum ser hrósun hafa, og eige á einum ødrum.

6. Þvíat hver einn mun sína byrde bera.

7. Enn sá fræddur verdur med ordenu, hann byte hønum allsháttudum giædum, sem hann uppfræder.

8. Fared eige viller vega, Gud lætur eigi at ser hæda.

9. Því hvad madur sáer nidur, þad mun hann uppskera. Hver í holldenu sáer nidur, sá mun af holldenu skadsæme uppskera. Enn hver í andanum nidursáer, sá mun af andanum uppskera eylíft líf.

10. Látum oss gera godt, og eige þreytast, þvíat á sínum tíma munum ver einnenn óaflatanlega uppskera.

11. Fyrst ver høfum nú tíd, þá gerum godt hverum manne, einna mest heim, sem eru trúarennar heimkinnes.

12. Siáed, hvad mørg ord eg skrifade ydur til med egin hende.

13. Þeir sig vilia þacknæma gera efter holldenu, þeir þvinga ydur til at umskerast, einasta þessvegna, at þeir verde eigi med krosse Christi offsókter.

14. Þvíat þeir siálfer sem sig

láta umskera, hallda eigi løgmálet, helldur vilia þeir þad, at þer láted umskera ydur, svo at þeir mege hrósa ser af ydru hollde.

15. Enn fiærre se mer at hrósast, nema einasta i krosse vors Drottins Jesu Christi, fyrer hvern mer er heimurenn krossfestur, og eg heimenum.

16. Þviat i Christo Jesu duger hvorke umskurn ne yferhúd nockud, helldur ny skepna.

17. Og svo marger, sem efter þessare reglu gánga, yfer þeim se fridur og miskun, og yfer Jsrael Guds.

18. Her efter gøre mer eingenn meire mædu framar, þvi eg ber markteikn Drottens vors Jesu á mínum líkama.

19. Nád vors Drottins Jesu Christi se med ydrum anda, kærer brædur, Amen.

Til þeirra i Galatia sendur af Rom.

Ender S. Páls Pistils til Galatas.

# Sancte Páls Pistill til Ephesios.

## 2. Capitule.

1. Páll, postule Jesu Christi, fyrer Guds vilia þeim Heilogum sem eru i Epheso, og trúudum á Christum Jesum.

2. Nád se med ydur og fridur, af Gude vorum fødur, og Drottne Jesu Christo.

3. Blessadur se Gud og fader vors Drottins Jesu Christi, sá oss hefir blessad med allshattadre andlegre blessan, i himneskum gædum fyrer Christum.

4. Svo sem hann útvalde oss fyrer hann, ádur enn veralldenn var grundvollud, at ver skylldum vera heilager og óstraffanleger fyrer hønum i kærleika.

5. Og hefir sett oss til barnastøtnningar fyrer siálfann sig, fyrer Jesum Christum, efter þocknan sins vilia,

6. Til lofs sinne dyrdlegre nád, fyrer hvøra hann hefir oss þacknæma gert, i sínum elskulega.

7. J hverium ver høfum endurlausnena, fyrer hans blód, sem er, syndanna fyrergefning, efter ríkdóme hans nádar.

8. Sem oss er gnóglega sked, i allshattudum vísdóme og forsiáleik.

9. Og hefir oss vita láted leyndardóm sins vilia, efter sinne þócknan, og hefir þann sama framflutt fyrer hann.

10. At hann yrde predikadur, þá uppfylling tímans var komen. Uppá þad, at hann til samans take alla hlute i Christo, bæde þá sem á himne og á jørdu eru, fyrer hann siálfann.

11. Fyrer hvern ver erum einnenn til arfskiptis komner, ver sem erum ádur fyrer fram fyrerhugader, efter forsiá þess, sem alla hlute verkar, efter ráde sins vilia.

12. Uppá þad ver seum hans dyrd til lofs, ver sem ádur fyrerframm vonudum á Christo.

13. Fyrer hvern þer hafed heyrt sannleiksins ord, sem er evangelium af ydvarre sáluhiálp, fyrer hvert þer, þá þer trúdud, erud inn-

siglader med Heiløgum anda fyrer-heitesins.

14. Sá sem er pantur vorrar arfleifdar, til vorrar endurlausnar, svo at ver yrdum hans eigen eign, til løfs hans dyrdar.

15. Hvar fyrer eg einnen, efter því eg hefe heyrt, af ydrre trú hiá ydur, til vors Drottins Jesum, og af ydrum kærleika til allra heilagra.

16. Þá læt eg eigi af þacker at gera fyrer ydur, og at minnast ydar í mínum bænum.

17. At Gud vors Drottins Jesu Christi, dyrdarennar fader, gefe ydur vísdómsins og opinberingarinnar anda, til hans eigenn vidurkenningar.

18. Og upplyse augu ydars skilnings, at þer meged vita, hvílík se sú von, sem þer erud tilkallader, og hver þar se ríkdómur hans dyrdarfullrar arfleifdar til hans heilagra.

19. Og hver þar se hin yfergnæfanlega stærd hans krafts vid oss, ver sem trúum, efter verkan hans volldugu stirkleiks.

20. Hvern hann hefir verkad í Christo, þá hann uppvakde hann af dauda, og sette hann til sinnar hægre handar á himnum.

21. Yfer allann høfdingskap, valldsstett, magt og herradóm, og allt hvad nefnast má, eige einasta í þessere verolldu, helldur iafnvel í ókomenne.

22. Og alla hlute hefir hann hønum under fætur lagt, og sett hann høfud safnadarens, yfer allt.

23. Hver hans líkame er, sem er uppfylling hans, sem alla hlute í øllum uppfyller.

## 2. Capitule.

1. Og einnenn ydur lífgade hann þá þer vorud dauder, fyrer afbrot og synder.

2. J hverum þer nockora stund gengud, efter þætte þessarar verolldar, og efter þeim høfdinga sem í loptenu drottnar, sem er efter þeim anda, sem á þessare tíd hefir sína verkan í børnum vantrúarennar.

3. Medal hverra ver høfum aller fordum haft vort athæfe í girndum vors holldz, fremiande holldsins og skilningsins vilia, og vorum af náttúrunne børn reidinnar, líka svo sem hiner adrer.

4. Enn Gud, sá audugur er af miskun, fyrer sína miklu elsku, med hverre hann elskade oss.

5. Þá ver vorum dauder í syndunum, hefir hann gert oss lifande í Christo, því at af nádinne erud þer hiálpleger ordner.

6. Og hefir uppvaked oss med hønum, og sett os med hønum í himneskt athæfe í Christo Jesu.

7. Uppá þad hann audsynde í efterkomande ølld, yfergnæfanlegann ríkdóm sinnar nádar, fyrer sína gódgyrne yfer oss í Christo Jesu.

8. Því at af nádinne erud þer hiálpleger ordner, fyrer trúna, og þad eige af ydur siálfum; Guds gáfa er þad.

9. Eige af verkunum, svo at engenn hróse ser.

10. Því at ver erum hans verk, skapader í Christo Jesu til godra verka, til hverra Gud hefir oss ádur fyrrum fyrerbúed, at ver skylldum þar inne gánga.

11. Hvar fyrer verid þess minnuger, at þer, sem fordum daga vorud heidner þióder efter holldenu, og yfirhúd kallader, af þeim sem kallader eru umskurn, efter holldenu, sem med høndenne sker.

12. At þer vorud á þeim sama tíma fyrer utann Christum, framande og fyrer utan borgarett Israels, og framande frá testamente fyrerheitesins, af því hofdud þer enga von, og vorud án Guds í heiminum.

13. Enn þer sem nú í Christo Jesu erud, og fordum vorud í fiarska, þá erud þer nú nálæger ordner, fyrer blód Christi.

14. Þvíat hann er vor fridur, sem gerde eitt af bádum, og af hefir brotid þann vegg, sem þar var mille, í því, at hann burt tók fyrer sit holld, þann óvinskap, sem er.

15. Logmálid, þad í bodordunum var tilsett, svo at hann skapadi af tveimur einn nyann mann, af siálfum ser, og gerde frid.

16. At hann forlíkde hveru tveggiu vid Gud, í einum líkama, fyrer krossenn, og deydde svo óvinskapenn, fyrer sig siálfann.

17. Og er komenn, og kunngerde ydur í vangelio fridenn, ydur sem vorud fiærre, og hinum sem nærre voru.

18. Þvíat fyrer hann hofum ver hverutveggir atgáng, í einum anda, til fodursins.

19. Svo erud þer nú eige meir gestir og framande, helldur samborgarar heilagra, og Guds heimamenn.

20. Uppbyggder yfer grundvoll postula og spámannanna, þar Jesus Christur er siálfur sá ypparlegaste hyrningarsteinn.

21. A hverum oll uppbygging er í eitt samansett, og vex til heilags musteris í Drottne.

22. Uppá hvern þer verded einnenn uppbyggder til Guds íbúdar í andanum.

## 3. Capitule.

1. Hvar fyrer eg Páll em bandinge Jesu Christi, fyrer ydur heidinga.

2. Af því þer hafed heyrt útaf embætte Guds nádar, þeirre mer er til ydar gefen.

3. At mer er kunnur ordinn þesse leyndur dómur fyrer opinnberan, efter því eg hefe ádur hid allra stytsta skrifad.

4. Af hveru ef þer lesed þad, kunnud þer at merkia mínn skilning í leyndum dóme Christi.

5. Hver eige er mannanna bornum kunnur gerdur, í undanfarenne tíd, svo sem nú er hann ópinnberadur hans Heilogum postulum og spámonnum, fyrer andann, sem er:

6. At þiner heidnu eru samarfar og einn líkame, og hluttakendur hans fyrerheita í Christo, fyrer evangelium.

7. Hvers þenare eg em vordenn, epter gáfu Guds nádar, sem mer er gefen, efter hans volldugum krafte.

8. Mer hinum sídarsta allra heilagra er gefen þesse nád, at eg kunngerde medal heidinna þióda þann órannsakanlegann ríkdóm Christi.

9. Og upp at birta fyrer hverum manne, hver þar se sameign leyndardómsins, sem af veralldar upphafe hefir í Gude hulinn verid, sá alla hlute hefir skapad fyrer Jesum Christum.

10. Uppá þad, at kunnug yrde nú hofdingum og herradómum á himnum, fyrer sofnudenn, sú margfolld speke Guds.

11. Efter fyrerhyggu frá veralldar upphafe, sem hann hefir audsynt í Christo Jesu vorum Drottne.

12. Fyrer hvern ver høfum diørfung og adgáng í øllu trauste, fyrer trúna á hann.

13. Fyrer því bid eg, at þer tregest eige, vegna minnar hørmungar, sem eg þole fyrer ydur, hver ydar dyrd er.

14. Hvar fyrer eg beige min kne, fyrer fødur Drottins vors Jesu Christi.

15. Sá sem rettur fader er, allra þeirra sem børn kallast á himne og á jørdu.

16. At hann gefe ydur kraft efter ríkdóme sinnar dyrdar, at styrkiast fyrer hans anda, í hinum innra manne.

17. Og láta Christum fyrer trúna bygga í ydrum hiørtum, og fyrer kærleik innrætast og grundvallast.

18. Svo at þer mættud høndla med øllum helgum, hvert þar se vídd og lengd, dypt og hæd.

19. Og at vita þad, at elska Christum, þad er betra enn allt at vita, svo at þer uppfyltust med allshátttadre Guds uppfyllingu.

20. Enn honum sem máttugur er alla hlute yfergnæfanlegar at gera, helldur enn ver bidium eda skilium, efter þeim krafte sem í oss verkar.

21. Þeim sama se dyrd í safnadenum, sá í Christo Jesu er, ætíd, frá eylífd til eylífdar, amen.

## 4. Capitule.

1. Svo áminne eg ydur nú, eg bandinge í Drottne, at þer gánged svo sem þad heyrer ydvare kallan, hvar med þer erud kallader.

2. Med øllu lítelæte og hógværd, og med þolinnmæde, og umlíded hver annann í kærleika.

3. Og verid kostgæfer at hallda eindrægne í andanum, fyrer band fridarens.

4. Þar er eigi nema einn líkame, og einn ande, svo sem þer erud kallader uppá eina von ydrar kallanar.

5. Þar er einn Drottinn, ein trú, ein skírn.

6. Einn Gud og fader vor allra, sá sem er yfer ydur øllum, og fyrer ydur øllum, og í ydur øllum.

7. Og nádenn er gefen vor á medal, efter mæling giafar Christi.

8. Hvar fyrer hann seger: hann er uppfarenn í hædena, og hefir herleidingu at herfange teked, og mønnum gáfur gefed.

9. Enn þad, hann er uppfarenn, hvad er þad? utann þad hann er ádur niðurstigenn í hinar ydstu álfur iardar?

10. Sá sem nidur er stígenn, hann er sá same, sem upp er farenn yfer alla himna, uppá þad hann villde alla hlute uppfylla.

11. Og suma hefir hann sett til postula, enn suma til spámanna, suma til Gudspiallara, suma til hirdara, og lærefedra.

12. Svo at hiner heilogu, seu reidubúner til verka embættisins, hvar med líkame Christi kynne at uppbyggast.

13. Þar til ver komum aller til einnar trúar, og kynningar Guds sonar, og fullgerdir verdum, svo sem þeir, hverir eru í mæling fullkomins alldurs Christi.

14. Svo at ver s-ùm eige lengur børn, óstødug svo sem bylgur, veifader af allsháttudum vinde lærdómsins, fyrer pretti og underhyggu manna, hvar med þeir slæda efter, oss at prettá.

15. Verum helldur sannleikanum efterfylgande í kærleika, og vorum í øllu í honum, sem er høfudid, Christur.

16. Af hverum allur líkamenn

samteingest og einn limur á ödrum hänger, fyrer alla lidu, hvar af hver ödrum hiálp veiter, efter verke hvers og eins lids í sínum máta, og gerer þad, at líkamenn vegs til sinnar eiginnar betrunar, og þad allt í kærleika.

17. Svo sege eg nú og vitna í Drottne, at þer gángid eige lengur svo sem hiner odrer heidingiar gánga, í hegóma síns hugskots.

18. Hverra hugskot formyrkt er, og eru annarleger frá því líferne, sem af Gude er, fyrer þá fávitsku sem í þeim er, fyrer forherding siálfs þeirra hiarta.

19. Hverer hirduláuser eru, og sig gáfu í lausung, og fremdu allshóttadann óhreinleika, og þar til ágyrne.

20. Enn þer hafed eige svo numid Christum.

21. Ef þer hafed annars af honum heyrt, og erud í honum lærder, hverfu þad er í Jesu eitt rettelegt athæfe.

22. Svo aflegged frá ydur efter fyrre breitne hinn gamla mann, sem sig fordiarfar í gyrndum villudóms.

23. Enn endurnyed ydur í anda ydars hugskots.

24. Og klædest þeim nya manne, sem efter Gude er skapadur, í sannu rettlæte og heilagleika.

25. Hvar fyrer, aflegged lygar, og taled sannleik hver vid sinn náunga, þvíat ver erum hver annars limur.

26. Reidest og syndged eige; láted eigi sólena undergánga yfer ydare reide.

27. Gefed og ecke rum lastaranum.

28 Hver stolid hefir, sá stele nú eige meir, helldur erfide og afle med hondum nockud gott, svo at hann hafi at gefa þeim sem þurftuger eru.

29. Láted enga vonda ræbu frammfara af ydrum munne, helldur hvad nytsamlegt er, til betrunar, þar sem þørf gerest, at þad se þacknæmelegt at heyra.

30. Og hrigged eige Heilagann anda, med hverium þer erud innsiglader, til dags endurlausnarennar.

31. Allur beiskleike og grimdreide, hrópan og lastan se lángt frá ydur, ásamt allre illsku.

32. Enn verid innbyrdis hver vid annann vingiarnleger, og ástúdleger; og fyrergefed hver ødrum, líka svo sem Gud hefir fyrergefid ydur í Christo.

## 3. Capitule.

1. Svo verid nú Guds efterfylgarar, svo sem kærustu børn.

2. Og gánged í elskunne, líka svo sem Christus hefir oss elskad, og sig siálfann útgefed fyrer oss, til fórnfæringar og offurs Gude, til sætleiks ylms.

3. Enn frilllulífe og allan óhreinleik, eda ágyrne, láted eige um ydur segast, svo sem Heilogum hæfer.

4. Ne skammarleg orð og fíflslegt hial eda keskne, hvad ydur heyrer eige, helldur miklu framar þackargerd.

5. Því þad skulud þer vite, at eingenn frillulífis madur, eda óhreine, eda ágiarn, hver skurgodadyrkare er, hefir arftøku í ríke Christi og Guds.

6. Láted engann villa ydur med ónytum ordum, því fyrer þad kemur reide Guds yfer børn vantrúarennar,

7. Af því vered eige þeirra hluttakarar.

8. Því at þer voruð fordum myrkur, enn nú eruð þer liós í Drottne. Gánged svo sem born lióssens.

9. Avaurtur andans. er allshättud góðgyrne, rettlæte og sannleikur.

10. Og reyned hvad þar þacknæmi se Drottne:

11. Og hafeð ecke samlag vid óávöxtsöm verk myrkranna, enn straffed þau miklu helldur.

12. Þvíat hvad heimuglega gerest af þeim, er einnenn skammarlegt at sega.

13. Enn allt það verdur openbert, nær það verdur af liósenu straffad, því allt hvad openbert verdur, það er liós.

14. Fyrer því seger hann: vakna þú upp sem sefur, og rís upp af dauda, svo mun Christur upplýsa þig.

15. Svo sjáeð nú til, at þer gánged forsiálega, eige svo sem fáviser, helldur svo sem viser.

16. Og skicked ydur í tídenne, því það er vond tíd.

17. Fyrer því, vered eigi skilningslauser, helldur skilianðe hvad til Drottins er.

18. Og drecked ydur eigi víndrucknа, því þar af kemur óskicklegt líferne, helldur uppfyllest af anda.

19. Og taled hver vid annann, med psálmum og loffsaungum, og andlegum kvædum, synged og spiled Drottne í ydrum hiörtum.

20. Og seged þacker alla tíma Gude og fødur fyrer alla hlute í nafne vors Drottens Jesu Christi.

21. Og vered hver ødrum under gefner í Guds ótta.

22. Kvinnurnar vere sínum bændum undergefnar, svo sem Drottne.

23. Þvíat madurenn er kvinnunnar høfud, líka svo sem Christur er safnadarens høfud, og hann er frelsare síns líkama.

24. Enn líka svo sem søfnudurenn er Christo undergefenn, svo skulu og einnenn konurnar sínum bændum í øllu.

25. Þer menn, elsked ydrar húsfreyur, líka svo sem Christur elskade søfnudenn, og gaf sig siálfann út fyrer hann.

26. Uppá þat hann helgade hann, og hann hreinsade hann, fyrer vatnsbaded í ordenu.

27. Uppá þat hann tilbyggе ser siálfum einn søfnud, sem er dyrdlegur, og enga slickan ne hrucku, edá þesskonar hefde; helldur at hann se heilagur og óstraffanlegur.

28. Svo skulu og mennerner elska sínar eigenkonur, sem sína eigna líkama. Hver sína eigen kvinnu elskar, hann elskar sig siálfann.

29. Því alldrei hefir nockur sit eiged holld hatad, helldur nærer hann þat og fóstrar, svo sem einnenn Drottinn safnadenn.

30. Þvíat ver erum limer hans líkama, af hans hollde, og af hans beinum.

31. Hvers vegna madurenn mun forláta fødur og módur, og nálægest sína eigenkonu, og þau tvø munu eitt holld vera.

32. Þesse leyndur dómur er stór, enn eg tala um Christum og søfnudenn.

33. Þó! elsked þer hver sem einn sína eigenkonu sem siálfann sig, enn konan óttest manninn.

## 6. Capitule.

1. Þer børn, vered hlydug

ydrum foreldrum, í Drottne, Þvíat Þat er tilbærelegt.

2. Heidra fødur og módur, Þat er hid fyrsta bodord sem fyrerheited hefir:

3. Svo at Þer vegne vel, og Þú sert lánglífur á jørdu.

4. Og Þer fedur skulud eigi egna ydar børn til reide, helldur aled Þau upp í aga, og umvøndun, til Drottins.

5. Þer Þiónustumenn, vered hlydnuger ydrum líkamlegum Drottnum, med ótta og skelfingu, í ein faldleik ydvars hiarta, svo sem Christo.

6. Eigi alleinasta med Þiónustu fyrer augunum, mønnum til Þócknunar, helldur svo sem Þiónar Christi.

7. At Þer gered Þennann Guds vilia af hiarta, med gódum vilia.

8. Láted ydur Þykia, svo sem Þer Þióned Drottne, og eigi mønnum: og vited, at hvad sem hver einn gerer gott, Þat mun hann af Drottne medtaka, hvert hann er Þræll eda frelsinge.

9. Og Þer Drottnar, gered einnenn Þetta hid sama vid Þá, og láted af ógnum. Og vited einnen, at ydar Drottinn er á himnum, og Þat hiá hønum er ecki manngreinar álit.

10. At sidustu, míner brædur, vered sterker í Drottne, og í mætte hans kraftar.

11. Iklæded ydur Guds herskrúda, svo at Þer geted staded gegn umsátrum Diøfulsins.

12. Þvíat ver høfum eigi vid holld og blód at beriast, helldur vid høfdinga og volldugа, sem er, vid Drottna verølldarennar, Þeir í myrkrum Þessarar verølldar drottna, med illsku-anda under himnenum.

13. Þar fyrer høndled Guds herneskiu, svo at Þer geted móttstaded, Þá sú vonda stund kemur, og frammkvæmed allt vel og halld-ed sigrenum.

14. Svo standed nú, umgyrder um ydrar lendar med sannleik, og skrydder med bryniu rettlætesins.

15. Og á fótum skófatader, svo sem reidubúner at frammfylgia evangelio fridarens, hvar med Þer erud útbúner.

16. Enn umfram alla hlute, Þá høndled trúarennar skiølld, med hverium Þer kunned út at slockva øll elldleg skeyte Þess eitrada óvinar.

17. Og grípед hiálm hiálpræde-sins, og sverd andans hvert ad er Guds ord.

18. Og bided iduglega í allre naudÞurft, med bænum og beidne, í andanum, og Þar til vaked med allre stadfestu og ákalle, fyrer øllum helgum,

19. Og fyrer mer, svo at mer gefest orded med dirfsugre opnan míns munns, at eg mætte kunngera leyndann dóm evangelii.

20. Hvers sendeboде eg em í fiøtrunum, svo at eg mege diarflega Þar í høndla, og svo at tala sem heyrer.

21. Og at Þer vited einnen, hversu háttad er um mig, og hvad eg gere, Þat man Tychicus sá kære bróder, og trur Þenare í Drottne, kunngera ydur alltsaman.

22. Hvern eg hefe sendt til ydar, vegna Þess, at Þer mættud vita hverienn mer genge, og at hann hugsvalade ydrum hiørtum.

23. Fridur se med brædrunum, og kærleike med trúnne, af Gudi fødur og Drottne Jesu Christo.

24. Náð se med øllum Þeim sem elska vorn Drottinn Jesum Christum hreinferduglega, amen.

Skrifadur af Rom til Þeirra í Epheso, med Tychico.

# S. Páls Pistill til Phillippenses.

## 1. Capitule.

1. Páll og Timotheus, Þiónustumenn Jesu Christi, öllum heiløgum í Christo Jesu í Philippis, samt biskupum og Þenurum.

2. Náð se med ydur og fridur, af Gude vorum fødur og Drottne Jesu Christo.

3. Eg þacka Gudi mínum, svo oft sem eg hugsa um ydur.

4. (Hvad eg gerë alla tíma í øllum mínum bænum, fyrer øllum ydur, og bæn mína gere eg med fagnade.)

5. Fyrer ydru samlage í evangelio, frá hinum fyrsta dege, allt til þessa.

6. Og em þess hins sama í góðu trauste, at sá sem í ydur hefir uppbiriad hid góda verked, hann mun þat og einnen fullkomna, allt til þess dags Jesu Christi.

7. Svo sem mer er vel heyrelegt, at eg hallde af ydur øllum í þann máta. Þvíat eg hefe ydur í mínu hiarta, í þessum mínum fiøtrum, í hverum eg forsvara og, stirke evangelium, svo sem þér erud aller nádarennar hluttakarar med mer.

8. Þvíat Gud er minn vottur, hversu mig forlenger af hiartans grunne, í Christo Jesu, etter ydur øllum.

9. Og þess sama bid eg, at ydar kærleike aukgest æ meir og meir, í allre vidurkenningu, og í allre reynslu.

10. Svo at þer meged reyna hvad best se, at þer seud skírer og án hneixlunar, allt til þess dags Christi.

11. Uppfyllter ávegste rettlæte, sins, sem er fyrer Jesum Christum sydur sked, til dyrdar og lofs Gude.

12. Enn þat læt eg ydur vita, kærer brædur, at hvad mig er yferkomed, þat er til meire frammgángs sked evangelio.

13. Svo at mín fiøtur í Christo, eru ovenskár vorden, í øllu dómhúsenu, og hiá þeim øllum ødrum.

14. Og marger brædur í Drottne, sem fengu von af mínum fiøtrum, eru uordner þess diarfare orded at tala án hræðslu.

15. Sannlega; þá predika sumer Christum fyrer haturs og þrætu saker, enn sumer af gódre meiningu.

16. Þeir hiner kunngera Christum af þrætu, og eigi hreinlega, þvíat þeir meina, at þeir vili mínum fiøtrum hørmung tilleggia.

17. Enn þesser út af kærleika, þvíat þeir vita at eg ligg her til forsvars evangelii.

18. Enn hvad þá? At Christur verde med allsháttudu móte kunngerdur: hvert þat sker af yferhylmingu, eda þat skedur í sannleika, þá gled eg mig þó þar af, og vil mig einnenn gledia.

19. Þvíat eg veit, at þat sama mun mer falla til hiálpræðis, fyrer ydra bæn, og fyrer tilstirk Jesu Christi anda.

20. Svo sem eg øllbungis vænte og vona, at eg verde í engre grein til skammar; helldur at Christur med allre diersfung svo sem allt hingat til, líka og einnenn nú, mikladur verde á mínum líkama, se þat fyrer lífed eda fyrer daudann.

21. Þvíat Christur er mitt líf, og daudenn er minn ávinningur.

22. Enn med því, at í holldenu at lifa, þenar meir til ávøgst at syna, þá veit eg eigi hvert eg skal kiósa.

23. Þviat hverttveggia þrenger at mer: eg hefe gyrnd á, frá at skiliast, og hiá Christo at vera, hvad einnenn miklu betra være.

24. Enn þat er nytsamlegra í holldenu at blífa, fyrer ydrar saker.

25. Og eg veit í gódre tilvæntingu, at eg munne blífa, og vera hiá øllum ydur til frammfæremdar, og til trúarennar glede.

26. Uppá þat þer meged miøg hrósa ydur í Christo Jesu, af mer, fyrer mína komu aptur til ydar.

27. Genged át eins sem verdugt er evangelio Christi, uppá þad, ef eg kem og sie ydur, eda spyrie þad um ydur í minne fiarlægd, at þer standed í einum anda, og einnre sálu, og med oss strided fyrer trú evangelii.

28. Og láted eige í nockurn máta hlygda ydur af mótstandørunum, (hvert þeim er eitt teikn fyrerdæmingarennar, enn ydur sáluhialparennar, og þad af Gude).

29. Þviat ydur er þad gefed, fyrer Christi saker þad at gera, at þer eige alleinasta á hann trúed, helldur einnenn hans vegna líded.

30. Og hafed þá sømu baráttu sem þer hafed á mer sed, og nú af mer heyrt.

## 2. Capitule.

1. Se nú hiá ydur áminning í Christo; se þar huggun kærleiksins; se þar samlign andans; se þar hiartgróenn ástseme; og miskunseme.

2. Svo uppfylled minn føgnud, at þer seud einnrar lundar, hafande hinn sama kærleika, verande samhugader og eins sinnader.

3. Ecke gerande fyrer øfund edur hegóma dyrd; helldur fyrer lítelæte, hallde hver sem einn annann ædra, enn sig siálfann.

4. Og hverr einn líte eigi á þad sem hans er, helldur á þad hvad annars er.

5. Hver einn se svo sinnadur, sem Jesus Christus var.

6. Hver þó hann være í Guds mind, hellt hann þad þó eige rán, Gude líkur at vera.

7. Helldur minkade hann sig siálfann, og tók á sig mind eins þións; vard líkur ødrum mønnum, og at hegdan fundenn sem madur.

8. Lítelækkade sig siálfann, og vard hlydugur allt til dauda, já, allt til krossens dauda.

9. Fyrer því hefir Gud upphafed hann, og gaf hønum nafn, þad yfer øllum nøfnum er.

10. Svo at í nafne Jesu skulu sig beygia øll kne þeirra sem á himnum og á jørdu, og under jørdu eru.

11. Og allar túngur skulu vidurkenna, at Jesus Christus se Drottinn, til dyrdar Guds fødurs.

12. Líka svo, míner kærustu, sem þer hafed alla tíma hlyduger vered, eigi alleinasta í minne náveru, helldur og nú miklu meir í minne fráveru, þá verked ydra eigen sáluhiálp, med ugga og ótta.

13. Þvi Gud er hann, sem í ydur verkar bæde viliann og gerningenn, epter sinne þócknan.

14. Gered alla hlute án møglunar, og án þrætu.

15. At þer seud óaftanleger, og hrein Guds børn; óstraffanleger midt í mille þeirrar vondrar og fráhuúennar kynslódar, medal hverra þer skíned sem líós í heimenum.

16. Þar med, at þer blífed vid lífsins ord; mer til hrósunar á dege

Christi, mer, hver eige hefir til ónytis hlauped, ne forgefens erfidad.

17. Og ef svo er, at eg verd fórnfærdur yfer offre ydrar trúar og Guds þiónustugerd, þá gled eg mig, og eg gled mig med ydur øllum.

18. Þar af skulud þer einnen gledia ydur, og skulud gledia ydur med mer.

19. Enn eg vona í Drottne Jesu, at eg mune innan skams senda Timotheum til ydar, svo at eg gledest í huga, þá eg fæ at vita, hvernenn ydur ferst at.

20. Þvi eg hefe engann, sem svo algerlega se efter mínu sinne, sá ed svo af hiarta fyrer ydur syrger.

21. Þvi hiner aller leita þess hvad þeirra er, enn eigi hvad Jesu Christi er.

22. Enn þer vited at hønum er reittelega háttad, þvi líka svo sem barned med fødurnum, svo hefir hann med mer þiónad í evangelio.

23. Þann sama vona eg, at eg mune snarlega senda, þá eg se, hvad mer lídur.

24. Enn eg treystumst í Drottne, at eg mune einnenn sialfur innann skamms tíma til ydar koma.

25. Enn mer leytst naudsynlegt, at eg sende til ydar þann bródur Epaphroditum, sá minn hiálpare og medstrídare, og ydar postule, og minn naudþurftar þenare er.

26. Efter þvi hann hafde forlángan til allra ydar, og var miøg sorgmódur, af þvi þer høfdud heyrt at hann hafde siúkur vered.

27. Og hann var at sønnu dauðsiúkur. Enn Gud miskunade sig yfer hønum, eige einasta yfer hønum, heldur og svo yfer mig, svo at eg hefde eigi sorg á sorg ofan.

28. Enn eg hefe sendt hann þess skiótara, svo at þer sæud hann, og yrdud glader aftur, og at eg hefde þess minne sorg.

29. Svo medtaked hann nú í Drottne, med allre glede. Og hafed þess konar menn í heidre, þviat fyrer saker verks Christi, er hann dauðanum svo nær komenn, þá hann sitt líf þege aktade, uppá hað hann þiónade mer í ydvarn stad.

## 3. Capitule.

1. Framar, kærer brædur, þá gleded ydur í Drottne. Þvi þad eg skrifa ydur iafnan hid sama, tregar mig eige, og þad gerer ydur þess øruggare.

2. Gæfed gætur at hundunum: gæfed gætur at illum erfidurum: gefed gætur at umskurnenne.

3. Þviat ver erum umskurn, ver sem Gude þiønum í andanum, og hrósum oss af Christo Jesu, og forlátum oss eige á holdded.

4. Þó at eg hafe þad og einnenn, at eg meige mer af holldenu hrósa. Fyrst einn annar lætur ser þykia, hann meige ser af holldenu hrósa, enn þó miklu framar eg.

5. Sem á hinum átta dege er umskorenn, enn út af Israels ætt, af Benjamins kynþætte, Ebreskur af Ebreskum, og efter løgmálenu Phariseus.

6. Efter vandlætingunne ofsóknare safnadarens, Eg sem var med rettu í løgmálinu óstraffanlegur.

7. Enn hvad minn ávinningur var, þad hefe eg Christi vegna fyrer skada reiknad.

8. Þviat eg helld alla hlute skada vera, hiá þeirre yfergnæfanlegu vidurkenningu Christi Jesu míns Drottins, hvers vegna eg hefe alla hlute skada reiknad, og helld þá fyrer dreck, uppá þad eg ávinne Christum.

9. Og í hönnum fundenn verde, at eg hefe eige mitt rettlæte, sem kemur af lögmálenu, helldur þad sem fyrer trúna á Christum kemur, sem er þad rettlæte, sem af Gude trúnne tilreiknad verdur.

10. Hann at þeckia, og kraft hans upprisu, og sameign hans pínu, at eg verde og hans dauda líkur.

11. Svo at eg mætte hönum móte renna, til upprisu framm-lidenna.

12. Enn eige at eg hafe þad þegar höndlad, eda se þegar full-kommenn; eg skunda þar efter, hvert eg gæte einnenn höndlad; efter því eg em af Christo Jesu höndladur.

13. Míner brædur! eg helld mig enn nú eige siálfann fyrer þann, at eg hafe þad höndlad. Eitt vil eg sega, at eg gleyme því, hvad tilbaka er, og dreg mig at því sem í fyrer er.

14. Eg skunda at því uppsetta takmarke, efter því hnoßse, hvert framm helldur þeirre himnesku kallan Guds, í Christo Jesu.

15. Svo marger sem af oß eru nú fullkomner, þá verum svo sinnader. Og ef þer skulud nockud annad hallda, þá láted Gud ydur þad openbera.

16. Enn nú framar efter því ver erum svo lángt kommer, svo látum oß fylgia einne reglu; látum oß vera einlynta.

17. Fylged mer efter, kærer brædur, og gæted at þeim sem svo gánga, líka sem þer hafed oß til fyrermindar.

18. Því at marger eru, (af hverum eg hefe oftsinnes sagt ydur, og eg sege ydur einnenn nú grátande), óviner kroßsens Christi.

19. Hverra æfelok er fyrerdæming; hverra Gud magenn er; hverra vegsemd, sem iardlega sinnader eru, mun verda til skammar.

20. Enn vor umgengne er á Himnum, hvadan ver væntum frelsarans Jesu Christi, vors Drottins.

21. Sá vorn fáfengann líkama mun forklóra, at hann líkur verde hans forklárudum líkama, efter þeim krafte, huar med hann kann ser alla hlute undergefna at gera.

## 4. Capitule.

1. Líka svo, míner kærer og æskeleger brædur, minn fögnudur, og min korona, vered svo stöduger í Drottne, þer elskanleger.

2. Evodian áminne eg, og Syntychen áminne eg, at þær seu samlyndar í Drottne.

3. Eg bid þig einnen minn trúr lagsmadur, veit þeim adstod, sem med mer strídt hafa í evangelio, med Clemese, og hinum ödrum mínum hiálparmönnum, hverra nöfn eru í lífs bókenne.

4. Gleded ydur í Drottne alla tíma, og enn aptur sege eg: gleded ydur.

5. Ydra hógværd láted kunna verda öllum mönnum: Drottinn er nálægur.

6. Syrged eige, helldur láted ydrar bæner í öllum hlutum, í bænahallde og ákalle, med þackargerd, fyrer Gude kunnar verda.

7. Og fridur Guds, sá hærre er öllum skilninge, vardveite ydar hiörtu og hugskot í Christo Jesu.

8. Framar, kærer brædur: hvad sannarlegt er, hvad ærlegt er, hvad retteligt er, hvad skírlíft er, hvad ástsamlegt er, hvad vel sómer. Er þad dygd nockur? er þad lof nockud? hyged þar efter.

9. Hvert þer einnenn lært og medtekeð, heyrt og séð hafeð af mer; það gereð: Þá mun Drott in friðarens meþ yður vera.

10. Eg em næsta miøg glaður ordenn í Drottne, at þer erud endurvaknader, til umforgar fyrer mer, hvera þer hafeð þó allt iafnt fyrer mer borið, þóat tíden hafe það eige viliað líða.

11. Eige ege eg það nauð þurftarennar vegna, þvíat eg he'e lært, hvernin það svo gengur, mer at nægia láta.

12. Eg veit at lifa í volæde og í audæfum; eg em vidvanur í øllum hlutum, og hiá øllum, bæde saddur at vera, og svo hungradur; bæde gnóg at hafa og brest at líða.

13. Eg formá alla hlute, fyrer þann sem mig máttugann gerer, sem er Christur.

14. Þó hafeð þer vel gert, at þer hafeð mína hørmung annast.

15. Enn þer Philippenses viteð það, at af upphafe evangelii, þá eg burtfór af Macedonia, at eing enn søfnuður hefir mer neckuð veitt, í reikningskap útláta og inntekta, utann þer alleinasta.

16. Þvíat, til Thessalonicam sendud þer til minnar nauðþurftar, einu sinne, og þar efter enn einu sinne.

17. Eg leita eige giafa; helldur sæe eg, at yðar reikningur mætte með gnægre rentu ávextast.

18. Þvíat eg hefe alla hlute; eg hefe yferflioтanlegt. Eg fylltest gnægð, þá eg meðtok fyrer Epaphroditum, það frá ytur kom, sætann ylm, þægelegt offur, Gude þacknæmt.

19. Enn minn Gud uppfylle alla yðar nauðþurft, efter sínum dyrðar ríkdome, í Christo Jesu.

20. Enn Gude og føður vorum se dyrð, frá eylífð til eylífðar, Amen.

21. Heilseð øllum Heiløgum, í Christo Jesu.

22. Yður heilsa þeir bræður, sem eru hiá mer; yður heilsa aller heilager, serdeilis þeir af keisarans húse.

23. Náð vors Drottins Jesu Christi se með yður øllum, Amen.

Skrifaður af Rom með Epaphrodito.

Endar S. Páls Pistills til Philippenses.

# S. Páls Pistill til Colossenses.

## 1. Capitule.

1. Páll postule Jesu Christi, fyrer Guds vilia, og bróder Timotheus.

2. Þeim Heiløgum í Colossen, og þeim truuðum bræðrum í Christo. Náð se með yður og friður, af Gude vorum føður, og Drottne Jesu Christo.

3. Ver þøckum Gude, og føður vors Drottins Jesu Christi, og biðium alla tima fyrer yður.

4. Af því ver höfum heyrt af ydvarre trú á Jesum Christum, og af ydar kærleik til allra heilagra.

5. Fyrer þeirrar vonar saker, sem ydur er ætlud á himnum, af hverre þer hafed tilforna heyrt, fyrer sannleiks orded í evangelio.

6. Pad til ydar komed er, svo sem og út um allann heimeinn, og er ávaxtarsamt, svo sem og líka á medal ydar, allt í frá þeim dege, þá þer höfdud það heyrt, og vidurkennt Guds nád í sannleika.

7. Svo sem þer lært hafed af Epaphra, vorum kæra medþenara.

8. Hverad er trúr þiónn Christi fyrer ydur, sá oss einnenn kunngerde ydvarn kærleika í andanum.

9. Hvar fyrer ver einnenn allt frá þeim dege, þá ver höfdum það heyrt, letum ver eigi af fyrer ydur at bidia, og ver bidium, at þer uppfyllest med vidurkenningu hans vilia, í allshóttudum andlegum vísdóme og skilninge.

10. Svo at þer gánged Drottne verdugleqa, til allrar þócknunar.

11. Og seud ávaxtarsamer í öllum gódum verkum, og vexed í Guds vidurkenningu, og stirkest í öllum krafte, efter hans dyrdarlegre magt, í allre þolenmæde og lánglundargede, med fögnude.

12. Og þacker gered födurnum, sem oss hefir skapfellega gert, til arfskiftis heilagra, í liósenu.

13. Sá oss hefir frelsad af yfervallde myrkranna, og hefir oss innsett í ríke síns elskulega sonar.

14. Í hverum ver höfum end urlausn, fyrer hans blód, sem er syndanna fyrergefning.

15. Hverad er eigenleg ímind ósynelegs Guds, hinn frumgetne fyrer allar skepnur.

16. Pvíat fyrer hann eru aller hluter skapader, þeir á himnum og á iördu eru; hid synelega og ósynelega, bæde thronarner og herradómarner, höfdingiadómar og vallðstetter: alltsaman er það fyrer hann, og til hans skapad.

17. Og hann er fyrer öllum hlutum, og það allt vidhelst í hönum.

18. Og hann er höfud líkamans, sem er safnadarens; hver er upphafed, og hinn frumgetne á daudum, at hann hafe í öllum hlutum höfdingadæmed.

19. Pvíat það hefir svo þocknæmt vered, at í hönum skyllde allur fullkomlegleike byggia.

20. Og at aller hluter yrdu fyrer hann forlikter med sér sialfum, hvert það er á iördu, edur á himnum, þar med, at hann fridenn gerde, fyrer blóded á sínum krosse, fyrer siálfann sig.

21. Og ydur, þer sem fordum baga vorud framande, og óviner, vegna ydra vondra verka.

22. Enn ná hefir hann forlikt ydur med líkama síns holds, fyrer daudann, at hann gerde ydur heilaga, og óstraffanlega, og saklausa fyrer sér sialfum.

23. Ef þer blifød annars í trúnne grundvallader, stadsfaster og óhræranleger, af von þessa evangelii, sem þer hafed heyrt, hvert predikad er medal allra manna, sem under himnenum eru, þess hena er eg Páll orden.

24. Eg gled mig í mínum harmkvælum, þau eg líd fyrer ydur, og uppfylle á mínu hollde, hvad sem vantar á þær harmkvælingar í

Christo, fyrer hans likama, hver at er søfnudurenn.

25. Þess þenare eg em vordenn efter gudlegu predikunar embætte, á medal ydar, at eg Guds ord rikuglega predika skule.

26. Sem er þann hans leyndardóm, hver hulenn hefir vered frá upphafe veralldar, og um æfe, enn nú opinberadur er hans Heilogum.

27. Hverum Gud hefir viliad kunngera þennann dyrdarlegann rikdom þessa leyndardóms medal heidenna þióda, hver at er Christur í ydur, sem er von dyrdarennar, hvern vær bodum.

28 Aminnande alla menn og lærande alla menn med allsháttadre speke, uppá þad ver frammsettum hvern mann allgerdann í Christo Jesu.

29. Hvar fyrer eg erfida og stride efter krafte þess sem í mer kroftuglega verkar.

## 2. Capitule.

1. Eg vil ydur vita láta, hvert stríd eg hefe fyrer ydur, og fyrer þeim í Laodicea, og øllum þeim, sem mína personu hafa eige sed í holldenu.

2. Svo at þeirra hiørtu verde svoludust, og sambundinn ydeu í kærleika, og til allrar audgunar vissulegs skilnings, at þeckia leyndann dóm Guds fødurs og Christi.

3. J hverium hulder liggia aller fesióder vitskunnar og vidurkenningarennar.

4. Enn eg sege, at eingenn tæle ydur med likleguum rædum.

5. Þvi þó eg se eige þar epter holldenu, þá em eg þó í andanum hiá ydur, fagnande, at eg sióe ydra skickan og ydra stadfasta trú á Christum.

6. Lika svo sem þer hafed nú medteked Drottinn Christum Jesum, svo lika gánged í honum.

7. Og vered innrætter og uppbygder í honum, og vered stadfester í trúnne, sem þer erud til lærder, og vered rikuglega þacknæmer í henne.

8. Siáed til, at eingenn ræne ydur fyrer heimsspeki, og hegómlegar tælningar, efter manna lærdóme, og veralldarennar setninge, enn eige efter Christó.

9. Þviat í honum bygger allur fullkomlegleiki guddómsins likamlega.

10. Og þer erud fullkomner í honum, hann sem er hofud alls høfdingiadóms og valldstettar.

11. J hverum þer erud umskorner, med umskurn án handa, fyrer aflagu syndugs likama í hollldenu, sem er med umskurn Christi.

12. J þvi, þar þer erud med honum grefrader, fyrer skírnena, í hverre þer erud upprisner fyrer trúna, sem Gud verkar, hver hann uppvakde af dauda.

13. Og hann hefir ydur einnenn med honum lifande gert, þá þer vorud dauder í syndum, og í yfirhúd ydars hollds, og hann hefir oss fyrergefed allar synder.

14. Og afskafed þá handskrift, sem móte oss var, hver í setningum vær fulen, og oss gégnstædleg var, og hefir hana burtteked, og á krossenn neglt.

15. Og hefir afflett høfdingiadómá og vølldunga, og til synis frammleidt openberlega, og gerde eina sigurvinning af þeim, fyrer sig siálfann.

16. Af þvi láted engann gera ydur nockora samvitsku í mat eda

dryck, ellegar med áſett helgedaga hølld, eda túnglkomur, eda ſabbath.

17. Hvad alt er ſkugge af Þvi ſem tilkomande var, enn ſiálfur likamenn er í Chriſto.

18. Láted ydur eigi villa af nockorum Þeim, ſem koſtgæfa audmygt og englanna dyrkan; ræda um Þad Þeir eigi kenna, og eru til ónytis uppþrokadir í ſinu holldlegu ſinne.

19. Og hallda ſig eige vid høfuded, af hveru allur líkamenn fær hiálp, fyrer lide og ſamkomur, og helldur ſer ſvo ſaman, og vegs ſvo til guddómlegrar ſtærdar.

20. Seud Þer nú dauder med Chriſto, frá verølldlegum ſetningum, hvar fyrer láted Þer Þá veida ydur med ſetningum? líka ſem lifdud Þer enn í verølldenne hvar ydur kenneſt.

21. Eige ſkalltu á Þvi taka; eige ſkalltu Þvi bergia; eige ſkallt Þú Þad ahræra.

22. Hvert Þó allt ſlitnar, Þá Þad er med høndum haft.

23. Og eru manna bodord og kenningar, hverar hafa yferlit vitſkunnar, fyrer ſiálfvaleinn andleik og audmygt; og í Þvi Þeir Þyrma eigi líkamanum, og gera eige holldenu ſína ſæmd, til ſinnar naudÞurftar.

## 3. Capitule.

1. Erud Þer nú upp aftur riſner med Chriſto, Þá leited Þeſs hvad Þar uppe er, Þar Chriſtur er, ſitiande til Guds hægre handar.

2. Koſtgæfed efter Þvi ſem Þar uppe er, og eige efter Þvi ſem á jørdu er.

3. Þviat Þer erud dauder, og ydart líf er fólged med Chriſto í Gude.

4. Enn nær Chriſtus ydart líf mun ſig opennbera, Þá munud Þer einnenn med hønum opennberader verda í dyrdenne.

5. Svo deyded nú ydra limu ſem á jørdu eru, hór, óhreinleika, ſkammarlegann bruna, vonda lyſt, og ágyrne, ſem er ſkúrgodadyrkan.

6. Fyrer hvad kemur Guds reide yfer børn vantrúarennar.

7. Í hvørum Þer hafid fordumdaga genged, Þá Þer lifdud í Þeim.

8. Enn aflegged nú allt Þetta frá ydur, reide, grimd, illſku, laſtaner, ſkemmeleg ord af ydrum munne.

9. Liúged eige hver at ødrum; afklædeſt hinum gamla manne med ſínum verkum.

10. Og íklædeſt hinum nya, ſá ſem endurnyaſt á til vidurkenningar, efter Þeſs ímind, ſem hann heſir ſkapad.

11. Þar ſem er eingenn Grickur, Gydingur, umſkoren, óumſkoren, útlendingur, Schyti, Þræll, frelſinge, helldur er Chriſtur allt og í øllum.

12. Svo íklædeſt nú, ſvo ſem Guds útvalder heilager og elſkuleger, hiartſólgenne miſkunſeme, gódvilia, audmykt, hógværde, Þolenmæde.

13. Og umlíded hver annann; og ef nockur heſir klógumál mót ødrum, Þá fyrergefed Þad hver ødrum innbyrdis, líka ſvo ſem Chriſtur heſir fyrergefed ydur, ſvo ſkuled Þer einnenn.

14. Enn framm yfer allt Þetta, Þá íklædeſt kærleikanum, ſem er band algerlegleikens.

15. Og fridur Guds ríke í ydr-

um hiørtum, til hvers þer erud kallader í einum líkama.

16. Láted Christi ord ríkuglege byggia medal ydar, í allre vitsku. Læred og áminned ydur siálfa med psalmum og lofsøngum, og andlegum liúflegum kvædum, og synged Drottne í ydrum hiørtum.

17. Og allt hvad þer gered med ordum edur verkum, þad gered allt í nafne Drottins Jesu, og þacked Gude og fødur fyrer hann.

18. Þer kvinnur, vered ydrum bændum undergefnar í Drottne, svo sem byriar.

19. Þer menn, elsked ydar egenkonur, og vered eigi beiskludader vid þær.

20. Þer børn, vered hlydug ydrum forelldrum í øllum hlutum, þvi at þad er Drottne þacknæmelegt.

21. Þer fedur, reited eigi ydar børn, svo at þau verde eige istødulaus.

22. Þer þegnar, vered hlyduger í øllum hlutum ydrum líkamlegum herrum, eigi med þiónustu fyrer augum, svo sem mønnum til þócknunar, helldur med einfalldleik hiartans, og med Guds ótta.

23. Allt hvad þer gered, þad gered af hiarta, svo sem fyrer Drottne, og eige fyrer mønnum.

24. Og vited, at þer munud audlast af Drottne verdlaun arfleifdunnar, þvi þer þióned Drottne Christo.

25. Enn hver órett gerer, sá mun þad medtaka, hvad hann hefir órett gert, og þar gillder eigi manngreinar álit.

26. Þer Drottnar, hvad rett og jafnadur er, þad audsyned þenurunum, og vited, at þer hafed einn Drottinn á himnum.

# 4. Capitule.

1. Vered stødugér í bænaákalle, og vaked í þvi hinn sama med þackargerd.

2. Bided og einnenn fyrer oss, svo at Gud uppluke oss ordsins dyr, til at tala leyndann dóm Christi, fyrer hvad eg em bundenn.

3. Uppá þad, at eg openbere þad sama, sem mer byriar at tala.

4. Gánged vísólega móte þeim, sem eru þar fyrer utan, og slicked ydur í tídenne.

5. Ydar ræda se ætíd liúfleg, og med sallte kryddud, at þer vited, hvernen þer skulud sér hverum andsvara.

6. Hvernen um mig er háttad, þad mun ydur allt kunngera Tychicus, kær bróder og trúr þenare, og medþiónn í Drottne.

7. Hvern eg hefe þar fyrer til ydar sendt, at hann skyllde vita, hvernenn ydur fære at, og at hann hugsvalade ydrum hiørtum.

8. Samt Onesimo þeim trúa og kæra bródur, hver frá ydur er; og allt hvernen her fer framm, munu þeir kunngera ydur.

9. Ydur heilsar Aristarchus, minn sambandinge, og Marcus systrungur Barnabe, um hvern þer hafed nockra bífalning medteked. Ef svo er, þegar hann kemur til ydar, þá medtaked hann.

10. Og Jesus sá kallast Just, hverer Gydingar eru. Þesser eru alleinasta míner hiálpendur í Guds ríke, þeir mer eru huggan vordner.

11. Ydur heilsar Epaphras, hver frá ydur er, einn þiónn Christi, og jafnan fyrer ydur stridande í sínum bænum, uppá þad þer standed fullkomner, og uppfyller í øllum Guds vilia.

12. Eg ber hönum þad vitne, at hann hefir stóra ástunden fyrer ydur, og fyrer þá í Laodicea og Hierapoli.

13. Ydur heilsar Lucas Lækner, minn ástvinur, og Demas.

14. Heilsed brædrunum í Laodicea, og Nymphan, og søfnudunum sem er í hans húse.

15. Og nær þisse Pistill er lesenn hiá ydur, þá tilskicked, at hann verde einnenn og lesenn í samkundunne í Laodicea. Og at þer lesed þann sem til Laodicea er skrifadur.

16. Og seged Archippo: tak vara á því embætte, sem þú medteked hefir í Drottne, at þú fullkomner þad.

17. Mín kvedia med minne Páls hende. Vered minnuger minna fiötra. Nádenn se med ydur, amen.

Ender S. Páls Pistills til Colossenses.

# Hinn fyrre S. Páls Pistill til þeirra í Thessalonica.

## 1. Capitule.

1. Páll og Silvanus og Timotheus. Þeim safnade í Thessalonica í Gude fødur og Drottne Jesu Christo. Nád se med ydur og fridur, af Gude vorum fødur og Drottne Jesu Christo.

2. Ver þøckum Gude alla tíma fyrer ydur alla, og þeinkium til ydar óaflátanlega í vorum bænum.

3. Og ver þeinkium án aflats á ydar verk í trúnne, og ydort erfide í kærleikanum, og á ydra þolennmæde í voninne, sem er til vors Drottins Jesum Christum, fyrer Gud og vorum fødur.

4. Því kærer brædur, af Gude elskader, ver vitum, at þer erud útvalder af Gude.

5. Þviat vort evangelium var hiá ydur, eige alleinasta í ordenu, helldur í hvørutveggiu í krafte og Heiløgum anda, og í nærsta misselle fullvissu, svo sem þer vited, hvilíker ver vorum medal ydar, fyrer ydra skulld.

6. Og þer erud vorer eftersylgarar vordner og Drottens, og hafed orded medteked, í miklum mótgánge, med fognude í heiløgum anda.

7. Svo at þer erud fyrermind vordner allra trúadra í Macedonia, og í Achaia.

8. Þviat af ydur er ord Drottins vídfrægt orded, eigi at eins í Macedonia og Achaia, helldur er ydar trú til Guds útdreifd, í allar álfur. Svo at eige er þorf ydur þockud at segia.

9. Þviat þeir siálfer kunngera um ydur, hvílíkann ingáng ver høfum haft til ydar, og hvernen þer erud umsnúner til Guds frá skúrgodum, til at þióna lifande og sønnum Gude.

10. Og at bída efter hans syne af himnum, hvern hann uppvakte

af dauda, Jesum, sá oss hefir frelsad frá tilkomande reide.

## 2. Capitule.

1. Af þvi þer vited, kærer brædur, vorn inngáng til ydar, at hann hefir eigi ónytur vered.

2. Helldur svo sem ver høfdum ádur tilforna lided, og hedung þolad til Philippen sem þer vited; þó vorum ver samt og ádur alldiarfer, í vorum Gude, hiá ydur at tala evangelium Guds, í stórre baráttu.

3. Þvi vor áminning hefir eige vered til villudóms, ne til óhreinleiks, ne til vela.

4. Helldur efter þvi ver erum af Gude reynder, at oss er tiltrúad, at predika evangelinm, svo tølum ver, eige sem villdum ver mønnum þócknast, helldur Gude, sem vor hiaurtu reyner.

5. Þvíat ver høfum alldrei neitt sinn med smiadrunar ordum umgenged, sem þer vited, og løgdum oss eigi efter ágyrnd; Gud er þess vottur.

6. Og eigi helldur leitudum ver vegsemdar af mønnum, hverke af ydur, ne af ødrum.

7. Ver hefdum mátt gera ydur þyngsle, sem Christi postuler; micklu helldur vorum ver mødurleger hiá ydur: líka sem fóstra ein annast hver sín børn.

8. Svo høfum ver hiartans lyst af ydur, og vorum vilinger til at hlutskipta vid ydur, eigi alleinasta Guds evangelium, helldur jafnvel vort líf, fyrer þvi, ver høfdum ydur ástfólgna.

9. Þer minnest vel, kærer brædur, vors erfides, og vorrar mædu, þviat dag og nótt erfidudum ver, svo at ver veittum engum nockor þyngsle á medal ydar, og predikudum hiá ydur evangelium Guds.

10. Þess erud þer vottar og Gud, hversu heilaglega, rettferduglega og óstraffanlega ver vorum hiá ydur, þer sem trúader erud.

11. Svo sem þer vited, at ver høfum hvern sem einn af ydur, svo sem fader sín børn, áminnt og huggad, og þad vottad.

12. At þer skÿlldud verduglega gánga fyrer Gude, þeim ydur hefir kallad til síns ríkis, og sinnar dyrdar.

13. Fyrer þad þøckum ver einnenn Gude óaflátanlega, at þer, þá þer medtókud af oss þad ord gudlegrar predikunar, þá medtókud þer þad eige, svo sem manna ord, helldur efter þvi þad sannarlega er sem Guds ord, þad einnenn verkar í ydur, þer sem trúed.

14. Þvíat þer erud efterfylgarar vordner, kærer brædur, Guds søfnudum í Judea, í Christo Jesu, svo at þer hafed þad sama lided af ydrum náfrændum, sem hiner af Gydingum.

15. Hverer einnenn Drottenn Jesum hafa líflátid, og þeirra egenn spámenn, og hafa oss ofsókt, og eigi þócknast Gudi, og eru øllum mønnum mótstaudnaleger.

16. Tálma oss at segia heidingum þad þeir meige afhiálpast, svo at þeir uppfylle sínar synder allstadar, þviat reiden er þegar endalega yfer þá komenn.

17. Enn ver, kærer brædur! med þvi oss hefir skad vered frá ydur um Stundar saker, epter yferlite, og eige epter hiartanu, þá høfum ver þess framar flytt oss med stórre þreyan ydart auglit at siá.

18. Fyrer þad høfum ver viliad til ydar koma eg Páll tvisvar sinnum: enn satan hefir hindrad ofs.

19. Þvíat hver er vor von eda føgnudur, edur korona hrósunarennar? erud þer þad eige fyrer vorum Jesu Christo, í hans tilkomu?

20. Já, þer erud vor vegsemd og føgnudur.

## 3. Capitule.

1. Fyrer þvi hofum ver eige lengur þad viliad umlida, og letum ofs þóknast at vera einsamer í Atenuborg,

2. Og høfum útsendt Timotheum vorn bródur og Guds þenara, og vorn hiálparmann í evangelio Christi, til at stirkia og áminna ydur ydarre trú.

3. Svo at eingenn ydar veikest í þessum hørmungum. Þvíat þer vited, at ver erum þar til setter.

4. Og þá ver vorum hiá ydur, søgdum ver ydur þad fyrer, at ver hlytum møtgang at hafa, svo sem sked er, og þer vited.

5. Þar fyrer at eg gat þad eigi lengur lideb, þá útsende eg, svo at eg mætte reyna ydra trú, uppá þad, at eige mætte ske, at freistarenn freistade ydar, og vort erfide yrde til ónytis.

6. Enn nú þá Timotheus er frá ydur til vor komenn, og hefir kungert ofs ydra trú og kærleika. Og at þer hugsed til vor alltíd til hins besta, og þad ydur forlenger efter at siá ofs, svo sem ofs einnenn efter ydur.

7. Þá urdum ver, kærer brædur, huggader af ydur í allre vorre hørmung og naud, fyrer ydra trú.

8. Þvíat nú erum ver lifande, med þvi þer standed í Drottne.

9. Þvi hvøra þackargerd getum ver Gude endurgolldid fyrer ydur, fyrer allann þann føgnud, sem ver høfum af ydur fyrer vorum Gude?

10. Ver bidum dag og nótt mikelega, at ver mættum siá ydart auglit, og uppfylla, ef nockud brestur á ydra trú.

11. Enn Gud vor fader, og Drottinn vor Jesus Christus, greide vorn veg til ydar.

12. Enn ydur margfallde Drottinn, og láte kærleikann verda fullkomenn innbyrdis hiá ydur, og vid hvern mann svo sem ver erum einnenn vid ydur.

13. Svo at ydar hiarta seu sterk og ostraffanleg, í heilagleika fyrer Gude og vorum fødur, í til tilkomu vors Drottins Jesu Christi, med øllum hans Heiløgum.

## 4. Capitule.

1. Framer, kærer brædur, bidium ver ydur, og áminnum í Drottne Jesu, med þvi þer hafed af ofs medtekid, hvernenn þer skulud gánga, og Gudi þóknast, svo at þer æ meir og meir fullkomnare verded.

2. Þvíat þer vited, hvad bodord ver høfum gefed ydur, fyrer Drottenn Jesum.

3. Þvíat þad er vilt Guds, ydar helgun, at þer umslyed hór.

4. Og hver ydar sem einn, vite at halda sina eigen kono í hreinlisti og heidre

5. Og eige í gyrndarbruna, sem heidingar, þeir af Gude ecke vita.

6. Og at eingenn áseyleſt edur take ágóda frá ſínum bródur í kaupum og ſaulum, Þvíat Drottinn er hann, ſem hefner alls þeſſa, ſem ver høfum ádur fyrr ſagt, og ydur vottad.

7. Þvíat Gud heſir eige kallad oſs til óhreinleiks, helldur til hellgunar.

8. Hver ſem nú forſmáer, hann forſmaer, eigi mann, helldur Gud, ſá ſinn heilaga anda heſir ydur gefed.

9. Enn um bródurlegan kærleika er ecke þorf ydur at ſkriſa. Þvíat þer erud ſiálfer af Gude lærder ydur innbyrdis at elſka.

10. Og þad gered þer einnenn vid alla brædur, ſem í allre Macedonia eru, enn ver bidum ydur, góder brædur, at þer verded enn algerdare.

11. Og koſtgæfed ſpakferduger at vera, og ydart eiged at ſtunda, og erſided med ydrum eigen høndum, ſvo ſem ver høfum boded ydur.

12. Uppá þad þer meged ærlega gánga hiá þeim, ſem þar-fyrer útan eru, og einſkis þeirra med þurfa.

13. Enn ver vilum, kærer brædur, eige dylia fyrer ydur, af þeim ſem ſofa; uppá þad þer ſeud eigi hrigger, ſem þeir adrer, ſem enga von hafa.

14. Því ef ver trúum því, at Jeſus er dáenn, og upp aftur riſenn, ſvo mun Gud og einnenn, þá ſem ſofnader eru fyrer Jeſum, med hønum frammleida.

15. Því þad ſegum ver ydur, ſvo ſem ord Drottins, at ver, hverer lifum, og efterblifum í tilkomu Drottins, ver munum eigi fyrre koma enn þeir ſem ſofa.

16. Þvíat Drottinn ſiálfur mun med hrópe og hofudenge' ſins rauſt, og Guds lúdre ofann koma af himnum, og hiner daudu í Chriſto munu fyrſt upp aftur ríſa.

17. Efterá ver, ver ſem líſum og efterblífum, verdum tilika uppnumder med þeim ſømu, í ſkyenn til móts vid Drottinn í lopted, og munum ſvo med Drottne vera alla tima.

18. Svo hugged nú hver annann innbyrdes þeſſum ordum.

## 5. Capitule.

1. Enn af þeim tíma og ſtundu, kærer brædur, er eingi þørf ydur at ſkriſa.

2. Þvíat þer viteð ſiálfer viſſulega, at dagur Drottins mun koma, ſem þiofur á nóttu.

3. Af þvi, nær þeir munu ſegia: þar er fridur, og her er eingen hætta, þá mun fordiorfunen ſnøgg yfer þá falla, líka ſvo ſem ſótt iódſiúkrar koinnu, og eige ſkulu þeir umſlúed geta.

4. Enn þer, kærer brædur, erud eigi í myrkrenu, ſvo at ſá dagur grípe ydur ſem þiófur.

5. Þer erud allerſaman lióſſens børn, og dagſins børn: ver erum eigi af nóttenne, ne af myrkrunum.

6. Fyrer því látum oſs eige ſofa, ſvo ſem hinu adra, helldur vøkum og verum ſparlífer.

7. Þvíat þeir ſem ſofa, þeir ſofa á nóttunne, og þeir ſem drucknir eru, þeir eru drucknir á nóttunne.

8. Enn ver ſem erum dagſins børn, ſkulum ſparlífer vera, ſklædder brynniu trúarennar og kærleiks-

ins, og med hiálme vonarennar til hialpræðessins.

9. Þviat Gud hefir eigi sett oss til reidr, helldur at ver skylldum hiálpræded odlast, fyrer vorn Drottinn J. sum Christum.

10. Sa fyrer oss hefir dáéd: svo hvert ver vökum, eda sofum, skulum ver tilsamens med honum lifa.

11. Fyrer þvi áminnt hver ydar annann innbyrdis, og leidrette hver annann innbyrdis, svo sem þer einnenn gered.

12. Enn ver bidium ydur, kærer brædur, at þer þecked þá, sem erfida medal ydar, og eru ydrir forstiodumenn i Drottne, og áminna ydur.

13. Og hafed þá þess kærare, fyrer þeirra verka saker, og vered fridsamir vid þá.

14 Enn ver bidium ydur, kærer brædur, at þer áminned brádvanda; hugged ístoduitla; umlíded breiska: vered þolenmóder hver vid annann.

15. Siáed til, at eingenn giall de nockorum illt med illu; helldur stunded æt.d epter hinu góda, bæde innbyrdis, og vid hvern mann.

16. Vered iafnann glader.

17. Bided óaflatanlega.

18. Vered þackl:ter i ollum hlutum, þviat þad er Guds vili i Christo Jesu, til ydar.

19. Utslockvid eigi andann.

20. Spádómana forsmáed eige.

21. Enn reyned alla hlute, og bihellded því, hvad gódt er.

22. Forded all, sem hefir illt ólit.

23. Enn hann sem er Gud fridarens, helge ydur i allann máta; og allur ydar ande, ásamt sálunne og líkamanum, mege vardveitt:r verda, óstraffanlegur i tilkomu vors Drottens Jesu Christi.

24. Trúr er hann sem ydur kallade, hann mun þad og einenn gera.

25. Kærer brædur! bided fyrer oss.

26. Heilsed ollum brædrum med heilogum kossi.

27. Eg sære ydur vid Drottinn, at þer látid lesa þennan Pistel fyrer ollum heilogum brædrum.

28. Nád vors Drottins Jesu Christi se med ydur, amen.

Til þeirra í Thessalonica fyrre Pistill skrifadur frá Athenuborg.

Ender bins fyrra S. Páls Pistils til þeirra i Thessalonica.

# Hinn Annar S. Páls Pistill til þeirra i Thessalonica.

## 1. Capitule.

1. Páll og Silvanus og Timotheus. Þeim sofnude til Thessalonica, i Gude vorum fodur, og Drottne Jesu Christo.

2. Nád se med ydur og fridur,

af Gude vorum födur, og Drottne Jesu Christo.

3. Ver skulum alltiafnt gera Gude þacker fyrer ydur, kærer brædur, sem verdugt er, þvíat ydar trú ver hid værsta, og innbyrdis kærleikur vex medal ydar allra,

4. Svo at vèr hrósum oss af ydur, í Guds söfnude, af ydar þolenmæde og trú, í öllum ydrum offsóknum, og hörmungum, hverar þer þoled.

5. Hvad og áuísar, at Gud mune rettferduglega dæma: og at þer verdaget verded til Guds ríkis, fyrer hvert þer og lided.

6. Af þvi þad er rett hiá Gude, at endurgialda þeim hörmung, sem ydur hörmung veita.

7. Enn ydur, þer sem hörmung lídeb, hvíld med oss, þá Drottinn Jesus mun opinberast af himne, med englum s. s kraftd.

8. Og med elds loga, hefnd at gefa yfer þá, sem eige þeckia Gud, og yfer þá, sem eige eru hlyduger evangelio vors Drottins Jesu Christi.

9. Hverer písler munu lída, þá eilifa ferdiorfun frá auglite Drottins, og frá hans dyrdarlegre magt.

10. Þá hann mun koma, at hann dyrdarlega openberest med sínum Heilögum, og dásamlegur med öllum trúendum. Þvíat vorum vitnis-urdi til ydar, af þeim sama dege, hafed þer trúad.

11. Og saker þess bidium ver einnenn alla tíma fyrer ydur, at vor Gud gere ydur verduga þeirrar kallanar, og upp-fylle alla velþocknan gædskunnar, og trúarinnar verk í kraftenum.

12. Svo at á ydur verde prísad nafn Drottins vors Jesu Christi, og þer á honum, efter náð vors Guds og Drottins Jesu Christi.

## 2. Capitule.

1. Enn vegna þeirrar tilkomu Drottins Jesu Christi, og vorrar samansöfnunar til hans, bidium ver ydur, kærer brædur.

2. At þer láted eigi skiótlega snúa ydur frá ydru sinne, ne skelfa, hvorke fyrer anda, eda fyrer ord, ne bref, svo sem af oss send, at dagur Christi se þegar fyrer hondum.

3. Láted engann villa ydur med nockorn móte. Þvíat hann kemur eige, nema at svo se, at ádur fyrre kome þar fráfall, og openskár verde madur syndarennar, og glötunarennar sonur, sá sem er mótstandare.

4. Og sig upphefur yfer allt, hvad ydar Gudsdyrkan heiter, svo at hann setur sig í Guds musteré, svo sem Gud, og gefur sig út þar fyrer, at hann se Gud.

5. Minnest þer eige þar á, at eg sagde ydur þetta, þá eg var enn hiá ydur?

6. Og hvad þad enn nú hindrar, vited þer, at hann skal openberast á sínum tíma.

7. Þvíat sá vondska breiser ser alla reidu heimuglega, útann þad, at sá sem þvi nú inne helldur, hlytur burt tekenn at verda.

8. Og svo mun þá hinn vondskufulle openskár verda, hvern Drottinn mun deyda med anda síns munns, og at engu gera fyrer uppbyrting sinnar tilkomu.

9. Hvers tilkoma sker epter krafte andskotans, med allskatt-

udum lyga krafte, táknum og stórmerkium.

10. Og med allsháttadre afvegaleidslu til ranglætes, medal Þeirra sem tapader verda, fyrer Það, Þeir hafa eige medteked kærleika til sannleiksins, svo Þeir hiálpudust.

11. Þvi mun Gud senda Þeim megnann villudóm, at Þeir trúe lygenne.

12. Uppá Það Þeir verde aller dæmder, sem sannleikanum eige trúa, helldur hafa lyst á ranglætenu.

13. Enn ver skulum Þacka Gude alla tíma fyrer ydur, elskanleger brædur í Drottne, at Gud hefir útvaled ydur allt frá upphafe, til sáluhiálpar í helgun andans, og í trú sannleiksins.

14. Med hverum hann hefir ydur kallad fyrer vort evangelium, till vegsamlegs eigenndóms vors Drottins Jesu Christi.

15. Svo standed nú, kærer brædur, og halldeð Þá setninga, sem Þer erud til lærder, se Það fyrer vor ord eda bref.

16. Enn siálfur vor Drottinn Jesus Christus, og Gud vor fader, sá oss hefir elskad, og gefed eylífa huggun, og góda von fyrer nádena.

17. Hann áminne ydar hiartu, og stadfeste ydur í øllum lærdóme, og gódum verkum.

## 3. Capitule.

1. Framar, kærer brædur, bided fyrer oss, svo at ord Drottins hafe sitt hlaup, og vegsamad verde, líka svo sem hiá ydur.

2. Og at ver verdum frelsader frá órádvøndum og illgiarnum mønnum. Þviat trúen er eige hvers manns.

3. Enn sá Drottinn er trúr, sem ydur mun stirkia og vardveita frá illu.

4. Enn ver vonum til ydar í Drottne, at Þer gered, og gera munud, hvad ver biódum ydur.

5. Og Drottinn stiórne ydrum hiørtum, til Guds kærleika, og til Þolinmæde Christi.

6. Enn ver biódum ydur, kærer brædur, í nafne vors Drottins Jesu Christi, at Þer fráskiled ydur frá serhverium Þeim bródur, sem ótilbærelega gengur, og eige efter Þeim settninge, hvern hann hefir medteked af oss.

7. Þviat Þer vited, hvernen Þer skulud oss eftersylgia, Þvi ver vorum eigi óskickanleger á medal ydar.

8. Høfum einnenn ecke braud fyrer ecke frá nockrum tecked. Helldur med erfide dag og nótt Þá høfum ver Þiónad, svo at ver veittum engum ydar nockor Þyngsle.

9. Eige fyrer Það, at ver hefdum Þar einga magt til, helldur at ver gæfum oss siálfa ydur til fyrermyndar, oss efter at fylgia.

10. Og Þá ver vorum hiá ydur, Þá budum ver ydur Það, at ef nockur vill eige erfida, sá skal og eige helldur eta.

11. Þviat ver heyrum, at nockorer á medal ydar gánga óskickanlega, og erfida ecke, drygande helldur flenskap.

12. Enn slikum biódum ver, og áminnum Þá, fyrer vorn Drottinn Jesum Christum, at Þeir erfide med spaklæte, og ete sitt eiged braud.

13. Enn þer, kærer brædur, þreytest eigi godt at gera.

14. Enn ef nockur er eigi hlydenn voru orde, þann uppteikned med brefe, og hafed ecke med hann at gera, svo at hann fáe kinnroda.

15. Hallded hann þó eigi sem óvin, helldur áminned hann sem brodur.

16. Enn siálfur Drottinn fridarens gefe ydur frid alla vegu, og med ollum háttum. Drottinn se med ydur ollum. Heilsan med minne hende Páls, hvert er þad merke í ollum brefum, hver eg skrifa. Nád vors Drottins Jesu Christi se med ydur ollum, amen.

Skrifadur frá Athenuborg.

Ender St. Páls Pistils til þeirra í Thessalonica.

# Sá fyrri S. Páls Pistill til Timotheum.

## 1. Capitule.

1. Páll, postule Jesu Christi, efter bode Guds vors frelsara, og Drottins Jesu Christi, sá vor von er.

2. Timotheo mínum rettum syni í trúnne. Nád, miskun, fridur, af Gude vorum fodur, og vorum Drottne Jesu Christo.

3. Svo sem at eg beydda þig, at þú blifer í Epheso, þá eg for í Macedoniam, og bodader þad nockrum.

4. At þeir ecke annad kenndu, og gæfu engánn gaum at æfentirum, og ættartolum, sem enganu enda taka; þær meir afla spurninga, enn betrunar til Guds í trúnne.

5. Pviat summa bodordsins er kærleikur af hreinu hiarta, og af godre samvitsku, og af ómengadre trú.

6. J frá hverre sumer hafa vikid, og eru umsnúner til ónyts þvættings.

7. Vilia vera Ritninga meistarar, skilia þó ecke hvad þeir segia, eda hvad þeir setia.

8. Enn ver vitum, at logmáled er godt, ef nockur tidkar þad rettelega.

9. Vitande þad, at hinum rettláta er ecke logmál sett, helldur ránglátum, og óhlydnum, ógúdlegum og syndurum, þeim óheilogum og óandlegum, fodurbonum, og módurbonum, mannslogurum,

10. Frillulífismonnum, þeim sem skomm dryga med karlmanne, og þeim sem stela monnum í burt, og lygurum, og meinsærismonnum, og svo þad fleyra, sem heilsusamlegum lærdóme mótstædelegt er,

11. Efter dyrdarfullu evangelio hins heilaga Guds, þad sem mer til trúad er.

12. Og eg þacka vorum Drottne Jesu Christo, sem mig stirkann gerer, og mig trúlyndann acktad hefir, og sette mig í þetta embætte.

13. Eg sem var þó fyrrmeir forsmánarce, ofsóknare, háðungar maður.

14. Enn mer er miskunseme yferkommen, því það gerda eg óvitenlega í vantrú, enn náð vors Drottins var þess yfergnæfanlegre med trúnne, og kærleikanum, sem er í Christo Jesú.

15. Því það eru vissuleg sanninde, og dyrmætt verdugt ord, at Christus Jesus er komenn í heimenn, synduga sáluhólpna at gera, medal hverra eg em hinn stærste.

16. Enn mer er því miskunseme yferkomenn, úppá það Christus Jesus audsynde á mer ferdeilislega, alla þolennmæde, þeim til efterdæmis, sem á hann skylldu trúa, til eylífs lífs.

17. Enn Gude eylífum konunge, óforgengelegum og ósynelegum, og alleina vísum, se lof og dyrd at eylífu, amen.

18. Þetta boderd bifala eg þer, minn sónur Timothee, efter hinum fyrrum spádómun yfer þer, at þú fremer í þeim gódann riddaraskap.

19. Hafande trú og góda samvitsku, hverre sumer hafa frá ser skúfad, og á trúnne skipbrot lided.

20. Medal hverra er Hymenæus og Alexander, hvera eg hefe ondskotanum gefed, svo at þeim yrde keunt, at gudlasta eige meir.

## 2. Capitule.

1. Svo áminne eg nú, at menn umframm alla hlute, gere bóner, bæner, fyrerbeidslur, og þackargjörder fyrer öllum mönnum.

2. Fyrer konungum og öllu yfervallde, uppá það ver megum hafa spekt og rólamlegt líferne, í allre gudrækne og sidsemd.

3. Því slíkt er gott, þar til einnenn þacknæmt fyrer Gude vorum frelsara.

4. Hann sem vill, at aller menn verde sáluhólpner, og til vidurkenningar sannleikssins komest.

5. Því at þar er einn Gud, og einn medalgángare mille Guds og manna, sem er sá madur Christus Jesus.

6. Hver siálfann sig hefir útgefed fyrer alla til endurlausnar, at þetta yrde predikad á sínum tíma.

7. Hvar til eg em predikare og postule settur: eg sege sannleik í Christo: eg lyg eigi, eg sem em lære fader heidenna þjóda, í trúnne og í sannleikanum.

8. Svo vil eg nú það, at menn bide í öllum stödum, og upphefe heilagar hendur, án reide, og örvinlunar.

9. Slíkt hid sama gere konurnar, at þær prýde sig sómasamlegum búnade, med blygd og hreinferde, eigi med folldum, hárflettan, eda gulle eda perlum, eda dyrmætum klædnade.

10. Helldur svo sem það konum hæfer, þeim sem audsyna gudhrædslu fyrer gódverk.

11. Ein kvinna lære í hljóde med allre undergefne.

12. Og eg leyfe eigi nockori kvinnu at kenna, eige helldur at hún se mannsins herra, helldur at hún se þögul.

13. Því at Adam er fyrre skapadur, efterá Eva.

14. Og Adam vard eigi svikenn; enn konan vard sviken, og hefir yfertrodslu innleidt.

15. Enn hún mun hiálpast fyrer barnburdenn, ef hún blifur í trúnne og kærleikanum, og í helgunenne med hreinferde.

## 3. Capitule.

1. Þad eru vissuleg sanninde, at ef nockur gyrnest biskups embætte, þá gyrnest ágætt verk.

2. Enn biskupe byriar at vera óstraffanlegur; einnrar kvinnu eiginnmadur; sparneytinn; hógvær; sidsamur; gestrisinn; sem heutugur er til at kenna.

3. Einginn vínsvelgare; eigi baráttusamur; einskis lióts ávinnings gyrugur; helldur línkindarsamur; eige þrättunarsamur; eige ágiarn.

4. Sá góda fyrersión veiter sínu húse; hver hlydug børn hefir med allre virdingu.

5. Því ef nockur kann eigi sínu egenn húse forstødu at veita, hvernen má hann þá Guds søfnudi umsión veita?

6. Eige nykominn til trúarennar; svo hann uppþrokest eige, og hrape svo í lastarans úrskurd.

7. Hann hlytur og einnenn at hafa gödann vitnisburd, af þeim sem þar fyrer útan eru, uppá þad hann hrape eige í smán og snøru lastarans.

8. Líka einnenn skulu þiónarner vera ærleger; eige tvítúngader; enger vínsuelger; einskis skammarlegs ávinnings gyruger.

9. Þeir sem hafa leyndann dóm trúarennar í hreinne samvitsku.

10. Þá hina sømu láte menn reyna; efter þad láte menn þá þena, ef þeir eru óstraffanleger.

11. Svo og líka skulu þeirra eigenkvinnur vera ærlegar; eigi lystunarsamar; sparneytnar; trúlyndar í øllum hlutum.

12. Þenarana, hvern sem einn, lát vera einnrar egtakvinnu eiginmann, sá góda forstødu veiter sínum børnum í sínu egin húsi.

13. Enn þeir vel þióna, verdskullda ser siálfum góda stett, og miked traust í trúnne, í Christo Jesu.

14. Þetta skrifa eg þer, og vona sem fyrst til þín at koma.

15. Enn ef mer seinkar, at þú viter, hverneen þú skalltumgángast í Guds húse, hvert ad er søfnudur Guds lifanda, stolpe og grundvallan sannleiksins.

16. Og augliósslega mikell er sá Gudlege leyndardómur: Gud er opennberadur í holldenu, rettlættur í andanum, auglystur englunum, predikadur heidingum, trúadur af heiminum, medtekenn í vegsemdenne.

## 4. Capitule.

1. Enn andenn seger skilmerkelega, at á sídurstu tímum munu nockerer gánga af trúnne, og gefa sig til svikksamlegra anda, og diøfla lærdoms.

2. Fyrer þá sem í útvortis heilagleika tala lyge, brennemark hafa í sínum samvitskum.

3. Og fyrerbióda at giftast, og bióda at bindast þeirrar fædu, sem Gud hefir skapad, til medtøku trúudum, med þackargerd, og þeim sem sannleikann vidurkenna.

4. Þvíat øll Guds skepna er góð; og ecke er burtkastanlegt, þad med þackargerd medtekid verdur.

5. Því það helgast fyrer Guds ord og bænena.

6. Nær þú ert þetta brædrunum fyrerleggiande, muntþú vera gódur þénare Jesu Christi, sem uppalenn ert í orde trúarennar, og góðum lærdómum, hverum þú hefir ætíd fylgt.

7. Enn óandlegar og gamallra kerlinga skrökfögur fordast þú, enn idka þig sjálfann til Gudhrædslu.

8. Þvíat líkamleg idkann er til lítels nytsamleg, enn Gudrækne er til allra hluta nytsöm, hafande þessa lífs fyrerheit, og svo hins efterkommanda.

9. Þetta eru vissuleg sanninde, og dyrmætt verdugt ord.

10. Þvíat til þess hins sama erfidum ver einnen, og verdum forsmáder, at ver höfum vonad á lifanda Gud, sá sem er frelsare allra manna, enn serdeilis trúadra.

11. Þetta biódþú og kennþú.

12. Eingenn forsmáe þína æsku; helldur verþú fyrermind trúadra í orde, í breitne, í kærleika, í anda, í trú, í hreinlífe.

13. Vertþú idenn med lesningu, med áminnigum, med gerningum, þángad til eg kem.

14. Gleym eige þeirre gáfu, sem þer er gefen fyrer spádóma, og auldunganna handa uppáleggíngu.

15. Idka og kostgæf þu þetta, svo at þinn frame se opennber í öllum hlutum.

16. Haf gát á siálfum þer, og á lærdómenum, og blíf stödugur í þessum greinum. Því ef þú gerer þetta, muntþú sialfann þig holpinn gera, og þá sem þig heyra.

## 5. Capitule.

1. Þann gamla straffaþú eige, helldur áminn hann sem fódur; úngann sem brodur.

2. Alldradar konur sem mædur, úngar sem systur, med öllu hreinlífe.

3. Heidra þær eckiur sem rettar eckiur eru.

4. Enn ef ein eckia hefir börn, eda barnaborn. Þá lát hana fyrst læra, sínu eigen húse gudlega at stiórna, og foreldrunum líkt aftur at gialla, þvíat það er vel gert, og þacknæmt fyrer Gude.

5. Enn það er sannarleg eckia, sem einsömul er, og sína von setur á Gud, og stadnæmest í bænum og ákalle dag og nott.

6. Enn hun sem í bilífe lifer, er lifande daud.

7. Bióð þú þetta, at þær sen óstraffanlegar.

8. Enn ef einhver ræker eige sitt, serdeilis sín hiú, sá hefir af neitad trúnne, og er heidnum verre.

9. Þá eckiu látþú útveliast, sem eigi er yngre enn sextiu vetra, hver alleina einu sinne hefir gift veret.

10. Og hefir vitnan gódraverka; ef hún hefir gestrisen vered; ef hún hefir heilagra fætur þveiged; ef hún hefir hrelldum hialpad; ef hún hefir til allra góera verka kostgæfen vered.

11. Enn úngar eckiur varast þú, því nær þær taka lauslátar at gerast gegn Christo, þá vilia þær giftest.

12. Hafande sinn dóm, at þær hafe þina fyrstu trú brotet. Enn sanframt þessu eru þær latar, og læra um hús at hlaupa.

13. Enn þær eru eige alleinasta latar, helldur einnenn fullar af mælge og þarfleysu, og tala þad sem eigi hæfer.

14. Því vil eg, at úngar eckiur giftest, ale börn, heimelenn forstö-

ku veite, og gefe mé standaranum ecke tilefne til áræ is.

15. Því þar eru þegar nockorar frákorfnar, efter andskotanum.

16. Enn ef einhver trúadur madur, eda trúud kvinna hefir eckiur, veite þau þeim sómu framfærslu, og láte søfnuden eigi þvingadann verda, svo at þær sem rettar eckiur eru, mættu grægd hafa.

17. Þeir olldungar sem vel forstanda, halldest tvofalldlegs heidurs verduger, serdeilis þeir sem erfida i ordenu, og í lærdómenum.

18. Því ritningenn seger: eige skalltþú tilbinda múlenn á eriandanaute: verkamadurenn er síns kaups verdugur.

19. Móte Aulldunge medtak ecke klögumál, án vitnisburdar tveggia eda þriggia.

20. Þá sem syndga, straffa fyrer ollum, uppá þad hiner hafe ótta af því.

21. Eg vitna fyrer Gude og Drottne Jesu Christo, og útvøldum englum, at þú vardveiter þetta, án eigennlegrar gedþeckne, ecke gerande fyrer vináttu.

22. Legg eige bráðlega hendur yfer nockurn. Og ger þig eige hluttakara í annerlegum syndum. Geym þig siálfann hreinferdugann.

23. Her efter dreck þú eige vatn, helldur brúka þú líted vín, vegna þíns maga og med því at þú offtlinnis ert siukur.

24. Sumra manna synder eru opennberar, svo at menn kunna þær fyrerframm at dæma, enn sumar verda her efterá opennberar.

25. Líka einnenn sumra gódverk eru fyrerfram opennber, og hinna annara blífa eige inne byrgd.

## 6. Capitule.

1. Þeir þiónustumenn, sem under þrældómsoke eru, skulu hallda sína Drottna í ollum heidre og virdingu, úppá þad, at Guds nafn, og þess lærdómur verde eigi lastadur.

2. Enn þeir sem trúada hafa, skulu eigi forsmá þá hina sømu med þeirre ásynd, at þeir eru brædur, helldur skulu þeir því þenugre vera, med því þeir eru truáder, og elskanlegér, og velgérningsins hluttakarar. Þetta kenn þú og áminn þú.

3. Ef nockur kenner odruvis, og blífur eigi vid heilsusamleg ord vors Drottins Jesu Christi, og vid þann lærdóm um Gudræknena.

4. Sá er uppbláseun, og veit ecke, helldur er hann siúkur af spurningum og ordadeilum, af hverum uppsprettur øfund, þrætur, lastmæle, misgrunur.

5. Onytar þrætur, slíkum mønnum sem fordiorfud hugskot hafa, þeir sannleiknum svipter eru, hverer þad meina, at gudrækne mune fiárafle vera. Forda þer frá þeim sem eru þess hattar.

6. Enn þad er mikell ávinningur, þeim sem er gudhræddur, og lætur ser ánægia.

7. Því at ver høfum ecke í þennan heim; af því er þad opennbert at ver munum ecke burt hafa.

8. Enn nær ver høfum fædu og klædnad, svolátum oss nægia.

9. Því þeir sem, ríker verda, fálla í freistne og snorur, og í margar fávislegar og skadsamlegar gyrnder, þær mannenum dreckia í fordiarfan og fordæming.

10. Því ágyrnd er rót alls illz, þeirrar sumer gyrntust, og eru

trúnne fráfallner, gera ser siálfum margar pítnur.

11. Enn þú Guds madur, umflý þvílíkt, og etterfylg rettlætenu, gudhrædslu, trúnne, kærleika, þolennmæde, hógværd.

12. Berstu góðre baráttu trúarennar; höndla eylíft líf, þar þu einnenn ert til kalladur, og játning fyrer mörgum vottum.

13. Eg byd þer fyrer Gude, sem alla hlute lífgar, og fyrer Christo Jesu, sá under Pontverskum Pilato voltad hefir góda játning.

14. At þú vardveiter þetta bodord án fleckunar, óstraffanlegur, allt til auglýsingar vors Drottins Jesu Christi.

15. Hvera sá hinn sæle og alleinasta vollduzi mun auglýsa á sínum tíma; hann konungur konunganna, og Drottinn Drottnanna.

16. Hann sem einnsamall ódaudleikann hefur; hann sem bygger í ljósenu, þar eingenn kann til at komast; hvern eingenn madur hefir sed, ne siá kann, honum se heidur og æfinnlegt vellde, amen.

17. Þeim ríku þessarar veralldar, bjod þu, at þeir seu eige mikilláter og legge enga von á þennann fallvalltann ríkdóm, helldur á lifanda Gud, sem oss ríkuglega gefur allsnaegtad til notkunar.

18. At þeir gere godt; at þeir audgest í gódum verkum; seu giafmilder, gódviliader.

19. Safnande ser siálfum fiód, til góds grundvallar hins tilkomanda, svo at þeir handle eylíft líf.

20. O Timothee! vardveit þad þer er tiltrúad, og varast óandlegt hegoma hial, og kappdeilur falsfrægrar listar.

21. Hverre nockrer frammhallda, og eru trúnne frávillter. Nádenn se med þer, amen.

Skrifadur frá Laodicea, sem er haufud Borg í Phrygia Pacatina.

Ender hins fyrsta S. Páls Pistills til Timotheus.

# Sá annar S. Páls Pistill til Timotheus.

## 1. Capitule.

1. Páll, Postule Jesu Christi, fyrer Guds vilia, epter fyrerheite líssins, í Christo Jesu.

2. Mínum elskulegum syni Timotheo. * Nád, miskunn og fridur, af Gude fødur og Christo Jesu vorum Drottne.

3. Eg þacka Gude, þeim eg þióna, frá lángfedgum mínum, í hreinne samvitsku, at eg óaflátanlega minnest þín, í mínum bænum, dag og nótt.

4. Og at mig forlenger epter, þig at siá (nær eg hugleide þín tárafoll) uppá þat, eg uppfyllest fögnude.

5. Ihugande þá fleckanla trú sem í þer er, og ádur fyrre byggde í þinne ömmu Loide, og í þinne módur Evnike, eg em þess fullviss einnen í þer.

6. Hvar fyrer eg áminne þig, at þú uppveker þá Guds giøf, sem í þer er, fyrer uppáleggiing minna handa.

7. Þvíat Gud hefir eigi gefed

eſs hrædſlunnar anda, helldur kraftarins og kærleikſins, og bindindes.

8. Fyrer þvi ſkammaſt þu eigi, fyrer vors Drottins vitnisburd, ne fyrer mig hans bandinga, helldur medþolugur vert evangelio, ſvo ſem eg em efter Guds krafte.

9. Þeim oſs hefir hialplega gert, og kallad med heilagre kalli, eigi efter vorum verkum, helldur efter ſinne fyrerhyggu og nád, hver oſs er gefen i Chriſto Jeſu, fyrer veralldarennar tima.

10. Enn nu openberud er, fyrer auglyſing vors lausnara Jeſu Chriſti, ſá ſem daudann hefir ſvipt magtenne, enn ſ fed og odaudlegleikann i lioſ leidt, fyrer evangelium.

11. J hvert eg em ſettur predikare, Poſtule og lærare heidenna þioda.

12. Hvors vegna eg lid þetta; enn eg ſkammaſt min þeſs ecki, þviat eg veit á hvern eg true, og em fullviſs, at hann kann þat at vardveita, hvad mer er til truad, allt til þeſs dags.

13. Blif þu vid heilſuſamlega fyrermind þeirra orda, ſem þu hefir heyrt af mer, af trúnne og kærleiknum i Chriſto Jeſu.

14. Þat hid góda, ſem þer er tiltruad, þat vardveit fyrer heilagann anda, ſem i oſs hygger.

15. Þu veitſt, at þeir hafa aller fráſnúeſt mer, ſem i Aſiá eru, medal hverra er Phygellus og Hermogenes.

16. Drottinn gefe miſkun huſe Oneſiphori, þviat hann hefir oft ſinnis mig endurnært, og af minum fiøtrum hefir hann ſer eigi feilad,

17. Helldur þá hann var i Róm, leitade hann min ſem innelegaſt, og fann mig.

18. Herrann gi[...] honum at ſinna miſkun hiá Drottne á þeim dege. Og i hverſu morgu hann hefir mer þiónuſtu veitt i Epheſo, þat veitſt þu allra beſt.

## 2. Capitule.

1. Svo vert þu nu ſterkur, ſonur minn, fyrer nádenna i Chriſto Jeſu.

2. Og þat þu hefir af mer heyrt, fyrer marga vittnisburde, bifala þat truum mønnum, þeim ſem tilhæfeleger eru einnenn at kenna ødrum.

3. Enn þu vert herkenn ſem gódur ſtridsmadur Jeſu Chriſti.

4. Eingenn ſtridsmanna ueſnt ſig i nockore ſiſlan um næring þeſſa lifs, uppá þat hann þockneſt þeim hinum ſama ſem medtók hann til ſtridsins.

5. Og þó at nockur ſtride, verdur hann þó eigi krýndur, nema hann ſtride rettelega.

6. Enn ſá akurenn eriar, ſkal fyrſtur nióta af ávextenum.

7. Merk hvad eg ſege, enn Drottinn mun gefa þer ſkilning i øllum hlutum.

8. Haf i minne Jeſum Chriſtum, hver upp aftur er riſenn frá daudum, af ſæde Davids, efter minu evangelio.

9. Hvers vegna eg lid, allt til bandanna, ſvo ſem illvirke: enn Guds ord er eigi bunded.

10. Fyrer þvi þole eg allt, ſaker útvaldra, at þeir ødleſt ſjannen hiálpræde i Chriſto, med eyliſre dyrd.

11. Þetta er ſannarlega ſatt, ef ver deyum med þá munum ver med hanum lifa.

12. Þolum ver, svo munum ver med hanum ríkia; ef ver afneitum hanum, þá mun hann einnenn afneita oss.

13. Erum ver enn eigi trúfaster, þá blifur hann þó trúfastur, þviat hann kann eigi ser siálfum at afneita.

14. Her um áminn þú þá, og vitna fyrer Drottne, at þeir hafe eigi orda þrætur, hverar engu nytar eru, nema til fráhverfingar þeim sem til heyra.

15. Kostgæf, at auksyna þig Gude rettskickadann og óstraffanlegann verkmann, sá retteliga í sundurklisse ord sannleiksins.

16. óandlegt hegóma hial fly þú, þviat þat stirker miked til ógudlegs athæsis.

17. Og þeirra ord eta um sig, líka sem annat átumein, medal hverra er Hymeneus og Philetus.

18. Hverer sánnleikanum hafa fécvillst, segande uppriśuna skedna vera, og hafa svo sumum snúed frá trúnne.

19. Enn sterk grundvallan Guds stendur stødug, hafande þetta insigle: Drottinn þecker sína, og at hver sá vike frá ránglæteny, sem nefner nafn Christi.

20. Í stóru húse eru eigi alleinasta keren af gulle og silfre, helldur einnenn af tre og leire, sum til heidurs, sum til vanæru.

21. Og ef nockur vardveiter sig hreinann fyrer slikummønnum, sá mun vera heilagt ker til heidurs, sem húsherrann kann at handtera, og til alls góds verks reidubued er.

22. Fly þú gyrnder æskunnar, enn eftersylg rettlæte, trú, kærleika, fride, med þeim øllum, sem ákalla Drottinn af hreinu hiarta.

23. Enn sávislegar og ónytsamlegar spurningar fly þú, þviat þú veitst, at þær ala ecki útan þrætur.

24. Enn þiónustumanne Drottins tilheyrer eigi at vera þrætusømum, helldur vingiarnlegur vid alla menn, og kenningasømum, sá vonda umlided getur med hógværd.

25. Og straffa þá sem þróláter eru, ef Gud gæfe þeim eitthvert sinn yferbét, sannleikann at viðurkenna.

26. Og endurvitkader verda úr Diøfulsins snøru, af hverre þeir fángader eru efter hans vilia.

## 3. Capitule.

1. Enn þat skallt þú vita, at á síðurstu døgum munu koma háskasamlegar tider.

2. Þvi þar munu verda þeir menn, sem eru sérgóder, ágiarner, málskaps mikler, drambláter, hádgiarner, foreldrum óhlydnger, óþackláter, óandleger.

3. Óhirleger, ósættanleger, lastmáluger, lostasamer, ótamder.

4. Sviküler, tráffuger, hrokafuller, þeir meir elska munadarlíst enn Gud.

5. Hverer hafa yferlit gudslegs athæfes, enn þess krafte afneita þeir: fordast þú og svo slika.

6. Af þessum eru og þeir, sem læðast her og hvar í húsum, og at herfange leida kvennsvifter, hladnar af syndum, og fara med margvislegt underferle.

7. Lærande jafnlega, enn geta þó aldrei til sannleiksins vidurkenningar komest.

8. Eins álíka sem þeir Jannes og Jambres mótstódu Moysi, svo

mótstanda þesser einnenn sannleiknum; eru menn forðiarfaðs hug skots; torvellder til trúarennar.

9. Enn þeir munu þat eigi lénge fremia, þvíat þeirra fistiska mun augliós verda hverum manne, lika sem einnen þat hinna varð.

10. Enn þú hefir reynt minn lærdom, minn vanna, mína fyrirætlann, mína trú, mitt lánglundarged, minn kærleika, mína þolenmæde.

11. Mínar ofsóknar, mínar þísler, þær mer tilfellu í Antiochia og Iconio, í Lystra, hvera ofsókn eg leið þar: og útaf öllum hefir Drottinn mig frelsað.

12. Og aller þeir sem gudlega vilia lifa í Christo Jesu, þeir hlióta ofsókn at líða.

13. Enn hiner vondu menn og svikarar frammleidast æ til hins verra, þvíat þeir villa, og verda villter.

14. Enn þú vert stadfastur í því sem þu hefir lært, og þer er til trúað, af því þú veitst af hverium þú hefir lært.

15. Og med því þer er kunnug heilög ritning, allt í frá barndóme, þá kann hún at undervisa þer til sáluhiálpar, fyrer trúna á Jesum Christum.

16. Þvíat öll ritning af Gude inngefen, er nytsamleg til lærdóms, til umvandanar, til betrúnar, til leidrettingar í rettlæte.

17. Svo at Guðs madur se algerdur, til alls góðs verks hæfilegur.

## 4. Capitule.

1. Svo vitna eg nú fyrer Gude, og Drottne Jesu Christo, sá sem koma skal, til at dæma lifande og dauda, med sinne auglysingu og med sínu rike.

2. Predika þú orded; halt at, hvert þat stedur í hægleguin tíma, eda óhæglegum; straffa; ögnaþ áminn, med allre þolenmæde, og kenningu.

3. Því þar mun koma einn tíme, at þeir munu eigi hlyda heilsusamlegum lærdómi, helldur munu þeir efter sínum egentlegum fysnum saman hrúga ser siálfum lærendur, efter því sem þeim eyrun klæa.

4. Og munu eyrunum frá sannleiknum snúa og ser snúa til lygi.

5. Enn þú vert árvakur i öllu; líd óret; ger verk gudspiallegs predikara; frammkvæm þitt embætte verduglega.

6. Þvíat eg verd nú fórnfærdur, og time minnar burtfarar tilstendur.

7. Eg hefe góða baráttu barest: eg hlaupeð fullkomnad; eg hefe trúnne halldeð.

8. Nú hedan í frá er mer afsídes lögd kórona rettlætesins, sem Drottinn hinn rettláte dómare mun mer á þeim dege gefa, enn þó eigi alleinásta mer, helldur jafnvel öllum þeim, sem hans tilkomu elska.

9. Legg þú kapp á at koma til min snarlega.

10. Þvíat Demas hefir mig yfirgefed, elskande þennann heim, burtfarenn til Thessalonicam, Crescens í Galatiam, Titus í Dalmatiam.

11. Lucas er einnsaman hiá mer: Marcum tak til þin, og haf med þer, þvíat hann er mer nytsamlegur til þiónustu.

12. Tychicum hefe eg til Ephesum sendt.

13. Pann Mottul, sem eg let eftir í Troodi hiá Carpo, haf med, nær þú kemur, og svo bækurnar, enn einkum þat bokfell.

14. Alexander smidur hefir audsyndt mer margt vondt, Drottinn umbune honum efter hans verkum.

15. Fyrer hverum þú einnenn varka þig, þviat hann hefir miøg mótstadet vorum ordum.

16. I mínu fyrsta forsvare stód eingenn hiá mer, helldur yfergáfu þeir mig aller, enn eigi se þeim þat tilreiknad.

17. Enn Drottenn stód hiá mer, og styrkte mig, at fú predikan fyrer mig stadfest yrde, svo at aller heidingar heyrdu þat; og eg em frelsadur af gine leónsins.

18. Enn Drottinn mun frelsa mig af øllu illu, og hiálpa til sins himneska rikis, hverum se dyrd, frá eylifd til eylifdar, amen.

19. Heilsa þú Priscæ og Aqvilæ, og heimkynni Onesiphori.

20. Erastus bleif í Corintho, enn Trophimum let eg efter í Mileto siúkann.

21. Haf kapp'á, at þú komer til min fyrer veturenn. Þer heilsa Evbulus og Prudens, og Linus, og Claudia, og aller brædur.

22. Drottinn Jesus Christus, se med þinum anda. Nádenn se med ydur, amen.

Hinn annar Pistill til Timotheus, skrifadur frá Rom, þá S. Páll var í annad sinn hafdur fyrer keisarann Nero.

# Sancte Páls Pistill til Titus.

## 1. Capitule.

1. Páll, þionn Guds, enn Postule Jesu Christi, efter trú Guds útvaldra, og vidurkening saunleikans, til andrækninnar.

2. I von eylifs lifs, hverra tilsagt hefir sá eigi lygur, Gud, fyrer veralldarennar tima.

3. Enn opinberad hefir, í sinne tid, sit ord, fyrer þá predikan, sem mer er til trúnud efter bode Guds vors lausnara.

4. Tito, mínum trúum syne, efter beggia okar trú. Nád, miskun, fridur, af Gude faudur, og Drottne Jesu Christo, vorum frelsara.

5. Vegna þess let eg þig efter í Crit, at þú skyllder fullkomlega skicka þvi, sem eg gafst upp vid, og ølldungana nidur at setia um borgernar, svo sem eg bifalade þer.

6. Svo þad, ef nockur er óstraffanlegur, einnrar kvinnu eginmadur, hver trulynd børn hefir, eigi ordræmd, at þaug seu ofeydsla menn, edur óhlydenn.

7. Þvi biskub á at vera óstraffanlegur, svo sem Guds tilsiónarmadur; eige einsinnadur; eige reidsenn; eingenn vinsvelgur; eigé barattumadur; ne ens skammelegs ávinnings gyrugur.

8. Helldur gestrisenn, gódlyndur, stiugur, rettferdugur, heilagur, hreinlífur.

9. Sá sem fastheldenn er þess ords, sem vissulegt er, og kenna kann, svo at hann se mattugur til

at áminna fyrer heilsusamlegann lærdóm, og at straffa þá sem móte mæla.

10. Því at þar eru marger óhlydner hegoma þvættarar, og tálsmenn, einnamest útaf umskurnenne.

11. Á hverum menn eiga munn til at byrgia, hverer heilum húsum umsnúa, og kenna það sem ecke hæfer, fyrer skemmelegs ávinnings saker.

12. Nockur af þeim, siálfra þeirra Skáld sagde: Creitar menn eru sífelega lygegiarner, illkvikende, og letesamer magar.

13. Þesse vitnisburdur er sannur. Hvers vegna þú straffa þá snarplega, at þeir seu heilbrigder í trúnne.

14. Og gefe engar gætur at þeim Gydinglegum æfentírum, og manna bodordum, sem burt snúa þeim frá sannleiknum.

15. Hreinum eru aller hluter hreiner, enn saurugum og vantrúudum er ecke hreint, helldur eru saurug bæde þeirra hugskot og samvitska.

16. Þeir segast þeckia Gud, enn með verkum afneita þeir því, með því Gud hefir andstygd á þeim og þeir eru til allra gódra verka ónyter.

## 2. Capitule.

1. Enn þu tala, svo sem það hæfer, efter heilsusamlegum lærdóme.

2. Olldrudum, at þeir seu sparsamer, heidarleger, hæfelæter, heilbrigder, í trú, í kærleika, í þolenmæde.

3. Lika einnem roskinum konum, at þær hegde sér sem heilögum hæfer, at þær seu eige álastanarsamar, eige vinsvelger; at þær seu gódar læremædur.

4. At þær kenne úngum konum sicktugum at vera, og það, at þær hafe kæra sína bændur, og elske sín börn.

5. Og seu sidsamar, skírlátar, umsiónarsamar, gódlyndar, sínum bændum undergefnar; at Guds ord verde eige lastad.

6. Slíkt lika áminn úngmennin, at þau seu sidsöm.

7. Enn í öllum hlutum, set þig siálfann fyrer mindan gódra verka, med ómengudum lærdóme med æru.

8. Med heilsusamlegu og óstraffanlegu orde, uppá það, at mótstandarenn óvirdest, og ecke hafe það hann kunne vondt um oss at segia.

9. Þiónustumönnum, at þeir seu sínum drottnum undergefner, og þióne það, sem þeim er gedþeckt í öllum hlutum.

10. Vere eige sviruger, eige ótrúer, helldur syne þeim allann gódann truskap, svo at þeir pryde lærdóm Guds vors lausnara í öllum greinum.

11. Því heilsusamleg nád Guds er auglyst öllum mönnum

12. Og typtar oss, at ver skulum afneita ógudlegu athæfe, og verolldlegum girndum, og lifa sparlega, rettferduglega og gudlega í þessum heime.

13. Og væki þá sælu von, og dyrdarennar auglysing, hins mikla Guds, og vors lausnara Jesu Christi.

14. Sem siálfann sig hefir útgefed fyrer oss, at hann endurleise oss frá öllu órettlæte, og hreinsa

de fer siálfum fólk til egnar, þad kostgæfed væri til gódra verka.

15. Þetta tala þú og áminn, og straffa med allre alvøru. Lát engann forsmá þig.

## 3. Capitule.

1. Áminn þá, at þeir feu høfdingunum og valldsteitunum undergefner, og hlydnger, til allra gódra verka reidubúner.

2. Engann lastande, eigi deilugiarner; vered miúker, audsynandi alla hógværd, vid hvern mann.

3. Þvíat ver vorum einnenn fordumdaga fáríser, óhlydnger, afvegagengner, þiónande gyrndum og margvíslegu bilífe; og gengum í illsku og øfundskap; og hatadum hver annann.

4. En þá byrtist gódgyrne og mannliufleike Guds vors laufnara.

5. Eigi fyrer verkanna rettlæties saker, sem ver høfdum gert, helldur efter sinne miskunseme gerde hann oss sáluhólpna fyrer endurgetningarlaugina, og endurnyung Heilags anda,

6. Hverum hann hefir úthellt yfer oss rikugliga, fyrer Jesum Chr stum vorn lausnera.

7. Svo ver rettlátter ordnum fyrer hans n d, og erfingar eylífs lífs, efter vonenne.

8. Þetta er vissulega satt. Þetta vil eg þú kenner stadfastlega, svo at þeir sem trúa á Gud, megefinnast kostgæfner til gódra verka. Þetta er godt og mønnum nytsamlegt.

9. Enn faríslegar spurningar og ættartølur, þrátfaner og laga deilur, fordast þú, þvíat þær eru óþarfar og fáfengar.

10. Villumenn, efter eina og adra áminning sly þú.

11. Og vit, at sá er umsnúenn, sem þess konar er, og syndgar, svo sem sá sig siálfann fordæmer.

12. Nær eg sende Arteman, ellegar Tychicum til þín, þá skunda þú sem skiótast at koma til mín til Nicopolim, þvi þar hefi eg ásett í vetur at vera.

13. Zenam Løgvitring og Apollon sendu af stad med athygle, svo at þá breste ecke.

14. Lát þá sem vorer eru, læra at láta sig finna kostgæfna í gódum verkum, hvar sem þeirra þørf gerest, svo at þeir feu eige ávaxtarlauser.

15. Þer heilsa aller þeir med med eru. Heilsa þu øllum þeim oss elska í trúnne. Nád se med ydur øllum, amen.

Skrifadur frá Nicopoli í Macedonia.

Ender S. Páls Pistils til Titus.

# S. Páls Pistill til Philemons.

## 1. Capitule.

1. Páll, band nge Jesu Christi, og Timot eus broder Philemoni ástsamlegum, og vorum medhialpara.

2. Og ástúdlegre Appia, og Archippo, vorum samstrídara, og søfnudenum í þínu húse.

3. Nád se med ydur, og fridur, af Gude vorum fødur, Drottne Jesu Christo.

4. Eg þacka mínum Gude, og minnist þín iafnlega í mínum bænum.

5. Af því eg heyre af þeim kærleika og trú, sem þú hefir til Drottins Jesu, og til allra heilagra.

6. At þín trú, hvora ver sameginlega höfum, verde kröftug í þer, fyrer vidurkenning alls hins góda, sem þer hafed i Christo Jesu.

7. Enn ver höfum fögnud mikenn og huggunn í þinum kærleika, því at hiörtu þeirra heilögu eru endurnærd fyrer þig, kære bróder.

8. Fyrer því, þótt eg hafe stóra diörfung þer at bióda í Christo, hvad þer sómer.

9. Þá vil eg þó fyrer kærleiks saker, einasta bidia þig, eg sem em hinn gamle Páll, og nú bandinge Jesu Christi.

10. Þá beide eg fyrer son minn Onesimum, þann eg aled hefe í mínum böndum.

11. Hver þer var fordum óþarfur, enn nú þer og mer nærsta þarfsamlegur, hvern eg sende þer nú aftur.

12. At þú villder hann medtaka, þad er mitt eged hiarta.

13. Því eg villde hafa hállded hönum hiá mer, at hann þiónade mer í þinn stad, í böndum evangelii.

14. Enn útan þíns vilia, villda eg ecke gera, svo at þinn góde gerníngur være eige neyddur, helldur siálfrádur.

15. Má vera, at hann se þar fyrer um stundarsaker frá þer farenn, at þú hann aftur fenger eylíflega.

16. Nú eigi lengur sem þiónn, helldur framar enn þiónn, einn kærann bródur, einkanlega minn, enn hversu meir þá þinn? bæde efter holldenu, og í Drottne?

17. Ef þú helldur mig nú fyrer þinn medbródur, þá medtak þú hann sem siálfann mig.

18. Enn hafe hann gert þer nockurt tión, eda se þer nockud skylldugur, þad reikna mer til.

19. Eg Páll skrifade þetta med minne hende, eg vil bitala. Eg þeige um þad, at þú ert mer siálfann þig skylldugur.

20. Minn kære bróder, unn mer þess, at eg endurnære mig hiá þer í Drottne: endurnær þú mitt hiarta í Drottne.

21. Eg hefe þer í trauste þinnar hlýdnis til skrifad, því at eg veit, at þú muner framar gera, enn eg sege.

22. Enn iafnframt þessu, reidubú þú mer herberge, því at eg vona, at eg verde ydur fyrer ydra bæn veittur.

23. Þer heilsar Epaphras minn sambandinge, í Christo Jesu.

24. Marcus, Aristarchus, Demas, Lucas, míner hiálpendur.

25. Nád vors Drottins Jesu Christi se med ydrum anda, amen.

Skrifadur frá Róm med Onesimo.

Endar S. Páls Pistils til Philemon.

# Sá Fyrre Sancte Peturs Pistill.

## 1. Capitule.

1. Petur, Postule Jesu Christi. Þeim útvölldum útlendingum, allstadar, í Ponto, Galatia, Cappadocia, Asia, og Bithynia.

2. Efter Guds fódurs fyrerhyggiu, fyrer helgun andans, til hlydne, og til ádreifingar blódsins Jesu Christi. Gud gefe ydur mikla nád og frid.

3. Blessadur se Gud, fader Drottins vors Jesu Christi, sá oss hefir efter sinne mikille miskunseme endurfædt, til lifande vonar, fyrer uppriſu Jesu Christi frá daudum.

4. Til óforgengelegrar, óflekkadrar, og óumskiftelegrar arfleifdar, sem vardveitest ydur á himnum,

5. Þer sem af Guds magt, fyrer trúna vardveitter verded til sáluhiálpar, þeirrar sem tilreidd er, at hún oppennber verde á sídurstu tímum.

6. J hverre þer munud glediast, þer sem nú litla stund (þó at þat svo se) hrigger erud í margvíslegum freistingum.

7. Uppá þat, at ydar trú rettelega og miklu dyrmætare funden yrde, enn þat hid forgengelega gull (sem í ellde reynt verdur) til lofs, dyrdar, og heidurs, nær nú Jesus Christus mun opinberast.

8. Þann þer sáud eigi, og þó elsked, og nú á hann trúed, þá at þer siáed hann eigi, svo munud þer og einnenn glediast med óumrædanlegre og dyrdarsamlegre glede.

9. Og endalok ydvarar trúar þar frá bera, sem er sáluhiálp sálarennar.

10. Efter hverri sáluhiálp spámennerner hafa leitad og grenslad, sem ydur, af þeirre tilkomande nád, hafa fyrer spád.

11. Og rannsøkudu á hverum eda hvilíkum tíma, anden Christi, sá med þeim var, tilreiknade, og ádur fyrerframm hefir kunngert, þær píslar sem í Christo eru, og epterkommande dyrd, hverum þat openberad er.

12. Hvíat eigi hafa þeir siálfum ser, helldur oss þar med þiónad, hvad ydur er nú kunngert, fyrer þá sem ydur hafa evangelium bodad, fyrer heilagann anda af himnum sendann, á hvad einnenn englarner fysast at horfa.

13. Þar fyrer gyrded ydar hugslendar, vered sparneytner, og seted algerlega ydra von á þá nád, sem ydur er bodud fyrer opennberan Jesu Christi.

14. Svo sem hlydug børn, og haged ydur eigi líka sem ádur fyrre, þá þer í heimsku, efter gyrndum lifdud.

15. Helldur efter þeim sem ydur hefir kallad, og vered heilager í øllu ydru dagfare.

16. Hvíat skrifad er: Vera skulud þer heilager, þvíat eg em heilagur.

17. Og med því þer ákalled þann fødur, sem án manngreinarálits dæmer, hvern efter símum verkum, því haged ydru dagfare, svo lenge sem þer gánged, med óttablendne.

18. Og vited, at þer erud eigi med forgengelegu gulle eda silfre endurleisster, frá ydru hegóma athæfe, efter fedranna uppsetninge

19. Helldur med dyrmætu blóde Christi, svo sem hins oflekkada, og saklausa lambs.

20. Hver fyrerhugadur var, fyrerver alldareunar grundvallan, enn opennberadur á sídurstum tímum, ydar vegna.

21. Þer sem fyrer hann trúed á Gud, hver hann uppvakte af daudum, og honum dyrdena gaf, uppá þat at ydar trú og von være á Gud.

22. Og gered ydrar sáler hreinferdugar, í hlydne sannleikssins fyrer andann til bródurlegs kærleika, sem er án yferdrepskapar: Og ydur innbyrdes med gláande kærleiká elsked af hreinu hiarta.

23. Svo sem þeir, hverer endurborner eru, eigi af forgengelegu sæde, sem er af orde Guds lifanda, þat æfenlega blífur.

24. Því allt holld er sem gras, og oll dyrd mannsins svo sem blómstur grassens. Grased er uppþornad, og blómstred er affalled.

25. Enn ord Drottins blífur at eylífu: enn þetta er þat ord, hvert á medal ydar kunngert er.

## 2. Capitule.

1. Því leggeð nú af alla illsku, og allt svikræde, og smiadur, og ofund, alla bakmælge.

2. Og gyrnest þeirrar skinsamlegrar hreinnar miólkur, sem nyfædd born, uppá þat, at þer þróest, fyrer þá somu.

3. Ef þer hafed annars smackad, at Drottin er liúfur.

4. Til hvers þer erud komner, svo sem til lifanda steins, hver af monnum burtkastadur, enn hiá Gude er hann útvalenn, og dyrmætur.

5. Og uppbygged ydur einnenn sem lifande steina, til andlegs húss, og til heilags prestsdæmis, til at offra andlegar offraner, þær Gude þacknæmar seu, fyrer Jesum Christum.

6. Þar fyrer innehelldur svo ritningen: Siá þar, eg legg í Zíon útvaldann dyrmætann hyrningarstein, og hver á hann trúer, sá skal eigi til skámmar verda.

7. Ydur, þer sem nu trúed, er hann dyrmætur; enn hinum vantrúudum er hann sá steinn, sem uppbyggendur burtkostudu, og at hyrningarsteine er vordenn.

8. At ásteitingar steine, og hneixlunar hellu, þeim sem reka sig á ordeð, og þar eigi á trúa, hvar þeir eru uppá setter.

9. Enn þer erud þat útvalda slekt, konunglegur kennemannsskapur, hin heilaga þióð, folk eignadómsins, svo at þer skulud kunngera dygder hans, sem ydur hefir kallad af myrkrunum, til síns dásamlega lióss.

10. Þer sem fordumdaga ecki folk vorud, og erud nú Guds folk, og hverir fordum eigi í nádenne vorud, enn nú í nádenne erud.

11. Kærer brædur, eg beide ydur lika sem framande og utlendinga, at þer halldeð ydur frá holldlegum gyrndum, hverar gegn sálunne strida.

12. Og hafeð góda umgengne medal heidenna þióda, svo at þeir sem um ydur tala, svo sem af illgerdamonnum, siáe ydar gódverk, og dyrdke Gud þegar kemur nú fyrer dagenn.

13. Vered undergefner allre mannlegre skickan, fyrer herrans saker, se þat konungur, svo sem hinum ypparsta,

14. Edur landstiórnorum, svo sem af honum útsendum, til hefndar yfer illvirkia, og gódum til lofs.

15. Þvíat þat er villi Guds, at þer med velgerninge nidur þagged sviturleik heimskra manna.

16. Svo sem frelsingar, og eigi svo sem hefdud þer frelse illskunne til yferhylmingar, helldur svo sem Guds þiónustumenn.

17. Gered virding hverum manne. Brædurna elsked; ottest Gud; heidred Kongenn.

18. Þer Þiónustumenn, vered herrunum undergefner, med allre óttaseme, eige alleinasta gódum og spakferdugum; helldur einnenn þeim sérlunduðu.

19. Því þat er nád ef nockur fyrer samvitskunnar saker til Guds þoler hid illa, og lídur hid óretta.

20. Því hver hrósan er þat, ef þer fyrer misgerda saker slegn líded? Enn nær þer umlíded og þoled fyrer velgerda saker, þat er nád hiá Gude.

21. Því þar til erud þer kallader, med því Christur hefir einnenn líded fyrer oss, eitt eftirdæme efterláted, at þer skylldud efterfylgia hans fótsporum.

22. Hver enga synd gerde, eige helldur eru svik funnenn í hans munne.

23. Sá ecki formællte í gegn, þá hönum var formællt; eigi ógnade, þá han leid: enn hann ysergaf þat hönum, sem rett dæmer.

24. Sá siálfur hefir vorum syndum offrad med sínum líkama á trenu, svo at ver frá syndum deidder, lifdum rettlæteno, af hvers benium þer erud heilbrigder vorder.

25. Þvíat þer vorud svo sem villuráfande sauder, enn nú erud þer umvender til hirderrs og biskups ydvarra sálna.

## 3. Capitule.

1. Líka einnenn skulu kvinnurnar vera undergefnar sínum mönnum, svo at einnenn þeir sem eigi trúa á orded, verde fyrer kvennanna umgengne, þ. e. utan ord, yferunner.

2. Nær þeir siá ydart hreinlífe og sidferde í óttaseme.

3. Hver skrautseme eige skal vera hin ytre, med hárfléttan, og gulle umhenganda, eda klædaburde.

4. Helldur sá hulde madur hiartans óspillaður, med hógværum og kirrlátum anda; þad er dyrmætt fyrer Gude.

5. Þvíat svo höfdu einnenn fordum heilagar kvinnur prýdt sig, þær sem á Gud vonudu, og underdergefnar voru sínum eginmönnum.

6. Líka sem Sara var Abraham hlydug, og kallade hann herra, hverrar dætur þer erud ordnar, ef þer vel gered, og erud eige svo stadlitlar.

7. Líka einnenn, þer menn, búed med þeim med skinseme, og gefed því kvennlega svo sem því breiskasta verkfære sína heidran, svo sem einnenn samerfingum nádargáfu lífsins, svo at ydart bænahalld verde eige hindrad.

8. Enn at álycktan, þá vered aller einhugader, samhugader, miskunsamer, liúfer.

9. Endurgiallded ecke illt med illu, edur skammaryrde fyrer skammaryrde; helldur þar í gegn blessed, og vited at þer erud þar til kallader, at þer blessan erfed.

10. Því hver hann vill lifa, og siá góda daga, sá stille sína túngu, at hún tale eige vondt, og sínar varer, at þær eige svíke.

11. Hann snúe sér frá illu, og gere hid góda, leite fridarens, og hönum efterfylge.

12. Því augu Drottins líta til þeirra rettlátu, og hans eyru til þeirra bæna. Enn auglit Drottins lítur til þeirra sem illa gera.

13. Og hver er sá ydur gete grandad, ef þer efterfylged hinu góda?

14. Og þótt þer líded einnenn fyrer rettlætisins saker, þá erud þer þó sæler: hrædest eigi þeirra ógnan, og skelfest eige.

15. Enn helgeo Gud Drottinn í ydrum hiartum. Vered og iafnlega reidubuner, andsvar at gefa hverium manne þeim sem skials krefur af þeirre von, sem í ydur er.

16. Og þad med hógværum ótta, hafande góda samvitsku, svo at þeir, hverer ydur baktala, sem vær. ud þer illgerdamenn, til skammar verde, at þeir hafa lastad ydra góda umgengne í Christo.

17. Því þad er betra, ef þad er Guds vili, at þer fyrer velgerda saker lided, enn fyrer vondra verka saker.

18. Af því, at Christur hefir eitt sinn fyrer vorar synder lided, hinn rettlate fyrer ránglata; uppá þad hann forsfære oss Gude; og er deyddur efter holldenu, enn lifandi gerdur efter andanum.

19. Í þeim sama er hann einnenn burt gengenn, og hefir þeim andum predikad í fiotrunum.

20. Hverer fordum daga eigi trúdu, þegar Gud eitt sinn efterbeid, og þolenmæde hafde í Nóa tíd, nær aurkenn var tilbúen, í hverre fáer, þad er átta sáler, hiálpudust fyrer vatned.

21. Hvert nú einnenn oss hiálplega gerer í skírnenne, hver fyrer hitt er tilmindud, eige burttekt holldsinns saurleika, helldur sáttmále gódrar samvitsku vid Gud, fyrer upprisu Jesu Christi.

22. Sá sem í himenenn uppfarenn er til Guds hægre handar; og hverium englarner og hiner volldugu, og kraftarner eru undergefner.

## 4 Capitule.

1. Med því Christus hefir nú fyrer oss líded í holldenu, þá brynied ydur einnenn med því sama hugskote. Því hver á holldenu lídur, sá lætur af at syndga.

2. Svo at hann þadan í frá, hvad efterfarande æfe er í holldenu, lifi eige efter holldsins girndum helldur vilia Guds.

3. Því at þad næger, at ver höfum þann umlidna tíma lífdaganna lifad, efter heidinglegum vilia, þá ver gengum í lausung, lostasemdum, dryckiuskap, ofáte, og ofdryckum, og í herfeligum skurgodadyrkunum.

4. Hvad þá undrar, at þer eige med þeim hlaupid, í því sama óheilsusama óhófe, og gudlastan.

5. Hverer reikningskap skulu gera honum, sem reidubúenn er at dæma lifendur og dauda.

6. Því at fyrer þad er einnenn hinum daudu evangelium kunngert, uppá þad þeir dæmder verde, efter monnum á holldenu, enn í andanum life Gude.

7. Og ender allra hluta tekur at nálgast.

8. Fyrer því vered hófsamer og sparneytner til bænanna.

9. Enn umframm alla hlute, hafed innbyrdis glóande kærleik, því at kærleikurenn hylur einnenn fiolda syndanna.

10. Vered gestrisner innbyrdis, án mögluner.

11. Og þióne hver odrum, hver einn med þeirre giof, sem hann hefir odlest, svo sem góder forsiórnarmenn margvíslegrar Guds nádar.

12. Ef nockur talar, tale hann þad svo sem Guds ord: ef nockur hefir embætte, hann þióne efter þeirre orku, sem Gud gefur, svo

at í øllum hlutum verde Gud dyrdkadur, fyrer Jesum Christum, hverum se dyrd og vellde, frá eylífd til eylífdar, amen.

13. Míner kærustu, eigi skulud þer láta þá freistni undra ydur, hver ydur hender, svo at þer reyndet verded sem hendte ydur necktud fáheyrt.

14. Helldur glebed ydur, at þer med Christo lided, uppá þad þer einnenn á openberingar tíma hans dyrdar mættud glediast og fagna.

15. Sæler erud þer, þá þer vanvirdter verded fyrer nafn Christi, þvíat andenn, sá sem er dyrdarennar, og Guds ande, hvilet yfer ydur, hiá ydur vegsamadur.

16. Enn eingenn ydar líde svo sem manndrápare, þiófur eda illvirki, eda só, sem í annarlegt embætte fellur.

17. Enn ef hann lídur svo sem annar Christenn, þá skammest hann sín eigi, enn dyrdke Gud í slíka tilselle.

18. Af því tíme er, at dómurenn tiltake á Guds húse. Enn bire hann fyrst á oss, hver mun þá ender verda þeirra sem Guds evangelio eige trúa?

19. Og ef hinn rettláte verdur varla forvaradur, hvar mun þá hinn ógudlege og synduge byrtast?

20. Þar fyrer skulu þeir, sem lída efter Guds vilia, honum sínar sáler á hendur fela, svo sem trúlyndum skaparo, í gódum verkum.

## 5. Capitule.

1. Þá aulldunga, sem á medal ydar eru, áminnne eg, svo sem vottur píslanna í Christo, og hlut takare dyrdarennar, sem opennber skal verda.

2. Væd þá hiørd Guds, sem ydur er á hendur falen, og gæted vel at, eige nauduger, helldur siálfviluger, eigi fyrer skæms ávinnings saker, helldur af gódum vilia.

3. Eige svo sem þeir yfer mønnum drottna, helldur vered fyrermind hiardarennar.

4. Svo munud þer, nær hinn ædste hirder mun byrtast, óvisnanlega kórónu dyrdarennar medtaka.

5. Líka einnenn þer, hverer ýnger erud, vered Aulldungum undergefner.

6. Allersáman vered hver ødrum undergefner, og hallted ydur fast vid lítillæted, þvíat Gud mótstendur drambláfum, enn lítillátum gefur hann nád.

7. Fyrer því lítillæted ydur nú under volldugu Guds hønd, svo at hann upphefe ydur á sínum tíma.

8. Alla ydra áhyggu varped uppá hann, þvíat hann ber umhyggu fyrer ydur.

9. Vered sparneyter og vaked, þvíat ydar mótstandare diófullenn gengur umkring, sem greniande león, efterleitande þeim henn svelgi.

10. Mótstanded honum ørugglega í trúnne, og vited, at ydrir brædur, þeir sem í heimenum eru, hafa þá sømu ánaud lided.

11. Enn sá Gud allrar nádar, sem oss hefir kallad til sinnar eylífrar dyrdar, í Christo Jesu, hann sáme mun ydur, þer sem um lítla stund lided, fullgera, tilreida, styrkia, efla, og stadfesta.

12. Þeim hinum sama se dyrd og vellde, frá eylífd til eylífdar, amen.

13 Fyrer Sylvanum ydran trúann bródur at því eg meina hefe eg fátt eina skrifad ydur til, til áminningar, og til vottunar, at

þelta er hin sanna Guds nád, í hverre þer standid.

14. Y ur heilsa þeir, sem samt ydur útvalder eru í Babylon, og minn sonur Marcus.

15. Heilsed ydur innbyrdis med kærleiks kosse, fridur se med öllum þeim, sem eru í Christo Jesu, amen.

Ender hins fyrra S. Peturs Pistils.

# Hinn annar S. Peturs Pistill.

## 1. Capitule.

1. Simon Petrus, þiónn og postule Jesu Christi. Þeim sem med oss þá sömu dyrmætu trú hafa hloted, í rettlætenu, því sem vor Gud gefur, og lausnarenn Jesus Christus.

2. Gud gefe ydur mikla nád og frid, fyrer kynning Guds, og Jesu Christi vors Drottins.

3. Af því oss eru allshättader hans gudlegar kraftar veitter hvörer til lyffins og gudlegs athæfes hendta fyrer vidurkenning þess, sem oss hefir kallad, fyrer sína dyrd og dygd.

4. Fyrer hvera þau dyrmætu og hin allra stærstu fyrerheit eru oss gefen, sem er, at þer fyrer þad sama hluttakarar vrdud gudlegrar nátturu, ef þer flyed forgengelegar girnder veralldarennar.

5. Því hafed þar alla kappsmune á, og audsyned í ydvarre trú dygd, og í dygd vitsmune.

6. Og í vitsmunum hófseme, og í hófseme þolenmæde, gudrækne.

7. Og í gudrækne bródurlegann kærleika, og í bródurlegum kærleika almennelegann kærleika.

8. Því ef þetta er gnógt hiá ydur, þá mun þad eige láta ydur vera luta ne ávaxtarsama í vidurkenningu vors Drottins Jesu Christi.

9. Enn hann sem þetta hefir eigi, sá er blindur, og fálmar med hendenne, og forgleymer hreinsun sinna fyrre synda.

10. Fyrer því, kærer brædur, legged þess meire kappsmune á ydra kallan og útvalning at stadfesta. Því ef þer gered þad, munud þer eige hrasa.

11. Og mun ydur svo ríkuglega gefenn inngángur verda í æverlegt ríke vors Drottins, og lausnara Jesu Christi.

12. Fyrer því vil eg eige láta hiá lída at áminna ydur iafnlega um þetta, þó at þer vited þad, og erud stirker í nálægum sannleika.

13. Þvíat eg helld þad tilbeyrelegt, svo leinge sem eg em í þessu hreise, at uppvekia, og a at minna ydur.

14. Því eg veit, at eg mun snarlega mitt hreise afleggia, svo sem vor Drottinn Jesus Christus hefir mer opennberad.

15. Enn eg vil kapps um kosta, at þer iafnan efter mína útfør hafed slíkt til minnis at hallda.

16. Þvíat eige hofum ver þeim hæmafrædum frásögnum eftersylgt, þá ver gerdum ydur kunnann kraft og hingatkomu vors Drottins Jesu Christi, helldur hofum ver siálfer sed hans dyrd.

17. Þá, hann af Gude fødur medtok dyrd og heidran, fyrer raust, sem til hans flede í mikellre dyrd, á þann hátt: Þesse er minn elskulegur sonur, á hverium eg hefe þóknan.

18. Og þessa rauſt heyrdum ver af himnum koma, þá ver vorum med honum uppá fiallenu helga.

19. Ver hofum eitt ofluegt ſpádoms ord, og þer gered vel, þer hafed þar gát á, ſvo ſem því lioſe, ſem ſkin í myrkum ſtad, þar til daguenna byrter, og morgunſtiarnan uppremur í ydrum hiortum.

20. Og þad ſkulud þer fyrſt vita, at eingenn ſpádómur í ritningunne ſker af eigennlegre utleggingu.

21. Því þar hefir eige enn nú nockur ſpádómur, efter mannſins vilia frammfluttur vered, helldur at Heilógum anda tilknúder hafa þeir Guds heilager menn talad.

## 2. Capitule.

1. Enn þat voru og, ſvo falsſpámenn medal fólkſins, líka ſem þat munu og einnenn á medal ydar verda lygeſamer lærendur, ſem iafnframt innleida munu, háſkaſamlegar tvídrægner, og afneita Drottins, þeim ſem þá hefir endurkeypt, og munu yfer ſiálfa ſig leida ſnógga Fyrerdæming.

2. Og marger munu efterfylgia þeirra fordiørfun, fyrer hveraſanleiks vegur mun laſtadur verdá.

3. Og fyrer ágyrne og uppdiktud ord munu þeir höndla vid ydur. Hverta dóms áfellé mun eigi lenge dvelia, og þeirra fyrer dæming ſefur eige.

4. Því ef Gud hefir eigé þyrmt þeim englum, ſem ſyndgudu, helldur hefir hann ſteypt þeim med bleckum myrkranna til helvítis, og ofurgefed þá, at þeir til dómſins varðveittuſt.

5. Og hefir eigi þyrmt hinne fyrre verólldu helldur vardveitte Nóa, þann rettlætis predikara ſialfann áttunda, og innleidde ſvo flóded yfer veróld hinna ogudlegu.

6. Og hefir borgernar Sodoma og Gomorra at oſku gert, umturnad, og fordæmt, ſetiande þar med þeim ógudlegu efterdæme, ſem ſeirna meir koma mundu.

7. Og frelſade hinn rettláta Loth, hverium ſá ſkammarlegur lydur alla meinſemd gerde, med þeirra ſaurlegu liferne.

8. Þvíat, med því hann var rettlátur, og bygde medal þeirra, ſvo at hann hlaut at ſiá þad og heyra, þá kvoldu þeir dog frá dege þá rettláta ſálu med þeirra ranglátum verkum.

9. Drottinn kann þá gudhræddu úr freiſtni at frelſa, enn hina ránglátu at vardveita til kvala á degi dómſins.

10. Enn einna meſt þá, ſem holldenu efterfylgia, í ſaurugum gyrndum, og herradómenn forſmá; eru dríſtuger, ſergóder, eigi ſkelfande tignarvellded at laſta.

11. Þar þó englarner, þeir meire mátt og kraft hafa, eigi bera geta þann loſtunardóm gegn ſer af Drottne.

12. Enn þeir eru ſvo ſem ſkinlaus kvikende, hver af náttúrunne eru þar til fædd, at þau veid og ſlátrud verde. Þeir laſta þad, hvad þeir eigé afvita og munu fyrerfaraſt í ſinu fordiarfanlegu athæfe.

13. Og ránglætis verdlaun þar af hlióta. Þeir hallda fyrer ſælgæte dagglegar kræſingar, þeir eru ſkomm og leſter, því þeir bramla af ydare olmuſu, og braſta af ydru.

14. Hafa augun full hórdóma, og láta eige varna ſer at ſyndga; og ginna at ſer lauſlyndar ſaler; hafa í gegnum ſmoged hiarta af ágyrne, bolvad fólk.

15. Yfergefande rettann veg, og fara viller, og efterfylgia vege Baláms sonar Basor, hver elskade veidlaun ránglætesins.

16. Enn hann feck straff sinnar yfertrodslu, sem var, at þad málslausa lukbæra dyr talade manneligre raustu, og estrade svo spámannsins fávitsku.

17. Þeir eru brunnar án vatns og sky af hvirfilvinde drifen, hverum vardveitest myrkranna dymma at eylífu.

18. Því þeir tala drambsom ord hegomliunnar, og teigia fyrer munadsemi til holdlegra gyrnda, þá hina, sem rettelega umflyder voru, og nú vegarviller gánga.

19. Og heitá þeim frelse, sem þeir eru þó siálfer fortøpunarennar þiónar. Því af hverium sem nockur er yferunnenn, þess þión er hann ordenn.

20. Því fyrst þeir eru umflyder saurende veralldarennar, fyrer vidurkenning Drottins, og lausnarans Jesu Christi, enn verda sídan aftur í hid sama vafder og yferunner, þá er hiá þeim hit sídara vorded verra hinu fyrra.

21. Því betra være þeim þad, at þeir hefdu eigi þeckt rettlætesins gotu, enn at þeir þecke hana, og umvendu ser frá því heilaga bodorde, sem þeim er gefed.

22. Sannlega hender þá þad, hvad í sonnum ordskvide plagar at segast, at hunduren etur upp aftur sina spyu, og þveged svín vellter ser aftur í saurnum.

## 3. Capituli.

1. Þesse er sá annar Pistill, sem eg skrifa ydur, miner kærustu, í hverum eg uppvek og áminne ydvart skært hugskot.

2. Svo at þer hugleided þau ord, sem ydur ádur fyrerfram eru sogd af Heilogum spámonnum, og vorn bodskab, ver sem erum postular Drottins og lausnarans.

3. Og í fyrstu þá vited, at á sidurstum dogum munu koma spottarar, hverer efter þeirra egenlegum gyrndum munu gánga,

4. Og sega: Hvar er fyrerheit hans tilkomu? Því þadan í frá fedurner sofnudu, blifa aller hlutir, svo sem af upphafe skepnanna verud hefir.

5. Því af hverú vilia þeir eigi vita þat, at himnarner einnenn voro fordum tíd, þar med, at jorden var af vatne, fyrer Guds ord.

6. Þó vard sem ádur verollden, í þeirre tíd fyrer þau somu ord af vantsflodenu fordiorfud.

7. Svo og einnenn sá himen og jord sem nú eru munu verda fyrer hans ord sporud; svo þat hau elldenum vardveit verde, á dege dóms og fyrerdæmingar ógudlegra manna.

8. Enneitt se óhuled fyrer ydur miner kærustu, at einn dagur fyrer Drottne, er sem þúsund ára, og þúsund ára svo sem einn dagur.

9. Drottinn seinkar eigi sínu fyrerheite, svo sem sumer hallda þat fyrer seinkun, helldur hefir hann þolennmæde vid oss, og vill eigi at nockur fortapest, helldur at hver madur snúe ser til yferbótar.

10. Enn dagur Drottins mun koma sem þiófur á nóttu, á hverum himnarner munu forgánga med storum brestum, enn høfudskepnurnar bradna, og jorden, og þau verk, sem þar eru inne, munu uppbrenna.

11. Med því, allt þetta skal nú forgánga, hvílíkum byriar ydur þá at vera, med heiløgu athæfe, og gúdrækelegum verkum?

12. Svo at þer efterstundeð og skunded, at þeirre tilkomu þess drottinlega dags, á hverum himnarner munu af elde forgánga, og høfudskepnur af hita brádna.

13 Enn ver væntum efter nyum himne, og nyrre jordu, efter hans fyrerheite, í hverum rettlæted bygger.

14. Fyrer því, míner kærustu, med því þer skulud þessa vænta, þá kostgæfed, at þer fyrer hønum ósleckader og óstraffanleger í fridnum fundner verded.

15. Og þolinmæde vors Drottins hallded fyrer ydra sáluhiálp. Sem ydur einnin vor elskulegur bróder Páll, efter þeirre speke hønum er gefen, skrifad hefir.

16. Svo sem hann í øllum brefum þar um ræder, í hverum eru sumer hluter þúnger at skilia, hveru hiner ófródu og óstødugu rángsnúa, svo sem einnenn ødrum ritningum, til þeirra eigenlegrar fyrerdæmingar.

17. Enn þer, míner elskuleger, med því þer þad fyrerfram vited, þá vakted ydur, at þer eige fyrer villu hirdulausra manna, frá leidder verded, og affalled frá ydrum egenlegum stadleiká.

18. Helldur vaxed í náð og vidurkenningu vors Drottins og lausnarans Jesu Christi. Þeim sama se dyrd, nú og at eylífu, amen.

Ender þess sídara S. Peturs Pistils

# Hinn fyrste S. Johannis Pistill.

## 1. Capitule.

1. Þad sem var af uppháfe, hvad ver heyrdum, hvad ver sáum med vorum augum, og hvad ver skodudum, og vorar hendur á tóku, um ord lífsins.

2. Og lífed er opennberad, og ver sáum, og vottum, og bodum ydur lífed þad æfenlegt er, hvert var hiá fødurnum, byrtest oss.

3. Hvad ver sáum og heyrdum þad bodum ver ydur svo at þer hefdud samfelag med oss, og vort samfelag se med fødurnum, og med hans syne Jesu Christo.

4. Og þetta skrifum ver ydur, at ydar fagnudur se fullkominn.

5. Og þetta er sá bodskapur, hvern ver heyrdum af hønum, og bodum ydur, at Gud er lios, og ongen myrkur eru í hønum.

6. Ef at ver segum, at ver høfum samfelag med hønum, og gaungum í myrkrenu, þá liúgum ver, og gerum eige sannleik.

7. Enn ef ver gaungum í liósenu, líka sem hann siálfur í liósenu er, þá høfum ver samfelag innbyrdis. Og blód Jesu Christi, hans sonar, hreinsar oss af øllum syndum.

8. Ef ver segum: ver høfum enga synd, þá villum ver siálfa oss, og sannleikurenn er eige í oss.

9. Enn ef ver vidurkennum vorar synder, þá er hann trúr og rettlátur, svo at hann fyrergefur oss vorar synder, og hreinsar oss af øllu ranglæte.

10. Ef ver segum: at ver høfum eige syndgad, þá gerum ver hann at lygara, og hans ord eru þá eige í oss.

## 2. Capitule.

1. Mín barna korn, þetta skrifa eg ydur til, svo at þer syndged eige. Og ef einn hver syndgar, þá hofum ver árnadarmann hiá fødurnum, Jesum Christum þann rettláta.

2. Og hann same er forlíkun fyrer vorar synder. Enn eige einasta fyrer vorar, helldur einnenn fyrer allrar verølldarennar.

3. Og þar af vitum ver, at ver þeckium hann, ef ver vardveitum hans bodord.

4. Hver hann seger: eg þecki hann, og helldur eigi hans bodord, sá er lygare, og í þvílíkum er eingenn sannleikur.

5. Enn hver hans ord vardveiter, í þeim er sannarlega Guds kærleikur fullkomminn. Þar af þeckium ver, at ver erum í honum.

6. Hver hann seger sig í honum at vera, sá skal og gánga, líka sem hann hefir genged.

7. Brædur! eg skrifa ydur eige nytt bodord, helldur gamallt bodord, hvert þer hafed frá upphafe haft. Þad gamla bodord er þad ord, hvert þer hafed heyrt frá upphafe.

8. Og enn aftur skrifa eg ydur nytt bodord, þad sannarlegt er hiá honum, og hiá ydur, þvíat myrkurenn eru frammhiá gengen, og hid sanna lióss skín nú.

9. Hver hann seger sig í lióseny vera, og hatar sinn bródur, sá er enn nú í myrkrunum.

10. Hver sinn bródur elskar, hann blífur í lióseny, og hiá honum er eingen hneixlan.

11. Enn hver sinn bródur hater, sá er í myrkrenu, og ráfar í myrkrenu, og veit eigi hvert hann gengur, þvíat myrkurenn hafa hans augu forblindad.

12. Kæru børn! eg skrifa ydur þad, at ydur verde syndernar fyrergefnar, fyrer hans nafn.

13. Eg skrifa ydur fedrum, þvíat þer þecked þann sem af upphafe er. Eg skrifa ydur æskumønnum, þvíat þer hafed þann hreckvíssa yfervunned.

14. Eg skrifa ydur smábørnunum, þvíat þer þecked fødurenn. Eg hefe skrifad ydur fedrum, því þer þecked þann, sem af upphafe er; eg hefe skrifad ydur æskumønnum, at þer sterker eud, og at Guds ord blífe hiá ydur, og þer hafed þann hreckvísa yfirunned.

15. Eige skulud þer heimenn elska ne þad í heimenum er. Ef nockur elskar heimenn, í honum er eige kærleikur fødursins.

16. Því allt þad í heimenum er, sem er fysn holldsins, og fysn augnanna, og drambsamt líferne þad er eige af fødurnum, helldur af heimenum.

17. Og heimurenn forgengur, og hans fysn. Enn hver Guds vilia gerer, sá blífur at eylífu.

18. Børn! þad er hin sídarsta stund, og sem þer hafed heyrt, at antachristur kemur, og nú eru marger antichristar vordner. Hvar af ver vitum, at þad er hin sídarsta stund.

19. Þeir eru frá oss útgengner, enn þeir voru eige af oss. Því heldu þeir vered af oss, þá hefdu þeir hiá oss blifed. Enn at þeir auglóser verde, þad þeir eru eige aller af oss.

20. Og þer hafed smurninguna af þeim sem heilagur er, og þecked allt.

21

21. Og skrifade ydur eige, svo sem vissud þer eige sannleikenn, helldur vited þer hann, og vited, at eingenn lyge kome af sannleikanum.

22. Hver er lygare útan sá, sem neitar, at Jesus se Christur? þad er sá antichristur, sem neitar fødurenn og sonenn.

23. Og hver synenum afneytar, hann hefir og eigi fødurenn; hver hann vidurkenner sonenn, hann hefir og fødurenn.

24. Hvad þer hafed nú heyrt af upphafe, þad blife hiá ydur. Ef þad blifur hiá ydur, hvad þer af upphafe hafed heyrt, þá munud þer hiá synenum og hiá fødurnum blifa.

25. Og þetta er fyrerheited, hvert hann hefir oss lofad, sem er eylift lif.

26. Þetta hefe eg skrifad ydur til, um þá, hverer ydur afvega leida.

27. Og smurningenn, hvera þer af hønum hafed medtiked blifur hiá ydur: og þer þurfed eigi, at nockur kenne ydur, helldur svo sem sú smurning kenner ydur alla hlute, þá eru þad sanninde og eingen lygi. Og sem hún hefir ydur kennt, þá blifed i hønum.

28. Og nú børn, blifed i hønum, uppá þad, nær hann mun opennberast, at ver høfum diørfung, og verdum eige fyrer hønum at hneixlan i hans tilkomu.

29. Fyrst þer vited hann er rettvís, þá vited ein..enn, at hver rettvíse gerer, sá er af hønum fæddur.

## 3. Capitule.

1. Siáed, hvllikann kærleika faderenn hefir oss audsynt, at ver skulum Guds børn kallast. Fyrer þvi þecker ydur heimurenn eige, þviat hann þecker hann eige.

2. Míner kæruslu, ver erum nú Guds børn, og þad er enn eigi opennberad hvad ver munum hønum líker verde, þvi ver munum hann siá, svo sem hann er.

3. Og hver einn, sem þvilika von hefir til hans, sá hreinsar sig lika sem hann er hreinn.

4. Hver synd gerer, sá gerer rángt, og synden er hid ránga.

5. Og þer vited, at hann hefir byrtst, at hann vorar synder burttæke; og eingen synd er í hønum.

6. Hver í hønum blifur, sá syndgar eige: hver hann syndgar, sá hefir eige sed ne þeckt hann.

7. Barna korn! láted engann villa ydur. Hver rettvíse gerer, sá er rettvís, líka sem hann er rettvís.

8. Hver synd gerer, sá er af diøflenum, þviat diøfullenn syndgar af upphafe. Þar til byrtest Guds sonur, at hann nidurbrite diøfulsins verk.

9. Hver af Gude er fæddur, sá gerer eige synd, þviat hans sád blifur hiá hønum; og hann getur eige syndgad, þviat hann er af Gude fæddur.

10. Þar af eru augliós Guds børn, og diøfulsins børn. Hver hann eigi gerer rettvíse, sá er eigi af Gude, og hver eigi elskar sinn brodur.

11. Þviat, þad er sá bodskapur, hvern þer hafed heyrt frá upphafe, at ver skulum elska oss innbyrdis.

12. Eigi sem Cain, sá af Hin. um vonda var, og (hel sló sinn bródur. Og fyrer hvad (heislo hann? Því hans verk voru vond, og hans bródurs rettferdug.

13. Undrest eigi brædur míner, þó heimurenn hate ydur.

14. Ver vitum, at ver úr daudanum erum komner til lífsins, þvíat ver elskum brædurnar.

15. Hver hann elskar eige sinn bródur, sá blifur í daudanum. Hver sinn bródur hatar, sá er manndrápare, og þer vited, at manndráparenn hefir eige eylist líf hiá ser blifanda.

16. Af því þeckium ver kærleikann, at hann hefir vogat sitt líf fyrer oss, og ver skulum einnenn voga lífed fyrer vora brædur.

17. Enn nær nockur hefir þessarar veralldar audæfe; og ser sinn bródur naud lída, og lykur sitt hiarta til fyrer hönum, hvernen blifur Guds kærleike hiá hönum?

18. Mín barnakorn! elskum eige med orde og túngu, helldur med verke og sannleika.

19. Par af þeckium ver, at ver erum af sannleiknum, og kunnum at stilla til frids vor hiartu fyrer hönum.

20. Svo þó at vort hiarta fordæme oss, at Gud er meire vorn hiarta, og þecker alla hlute?

21. Per ástsamleger, ef vort hiarta fordæmer oss eige, þá höfum ver diorfung til Guds.

22. Og hvad ver bidium, þad munum ver af hönum ödlast. Þvíat ver geymum hans bodord, og gerum hvad hönum þægelegt er.

23 Og þetta er hans bodord, at ver trúum á nafn hans sonar Jesu Christi, og elskum hver annann, svo sem hann gaf oss þad bodord.

24 Og hver hann vardveiter hans bodord, sá blifur í hönum, og hann í hönum. Og þar af þeckium ver, at hann blifur í oss, útaf þeim anda, hvern hann hefir gefed oss.

## 4. Capitule.

1. Per ástsamleger! trúed eigi sérhverium anda, helldur reyned andana, hvert þeir eru af Gude. Þvíat þar eru marger falsspámenn utgengner í veralldena.

2. Par af skulud þer Guds anda þeckia: hver ande, sem vidurkenner, at Jesus Christus se í holldi komenn, sá er af Gude.

3. Og hver ande, sem eigi vidurkenner, at Jesus Christus se í holldenu komenn, sá er eigi af Gude, og þad er sá ande þess antichrists, af hverum þer hafed heyrt, at hann munde koma, og er nú þegar í heimenum.

4 Börn korn! þer erud af Gude, og hafed hina yferunned; Þvíat sá í ydur er, hann er hinum meire, sem í heimenum er.

5. Peir eru af heimenum, fyrer því tala þeir heimenum, og heimurenn hlyder þeim

6. Ver erum af Gude, og hver hann vidurkenner Gud, sá heyrer oss: hver hann er eige af Gude, sá heyrer oss eige, þar af þeckium ver anda sannleiksins, og anda villudómsins

7. Per ástsamleger! elskum oss innbyrdis, þvíat kærleikurenn er af Gude, og hver hann elskar, sá er af Gude fæddur, og þecker Gud.

8. Hver hann elskar eigi, sá þecker eigi Gud, þvíat Gud er kærleiturenn

9. J því opennberadest kærleikur Guds vid oss, at Gud sende sinn eingetenn son i heimenn, at ver skylldum fyrer hann lifa.

10 Þar i er kærleikurenn: eige at ver elskudum Gud, helldur at hann elskade oss, og sende sinn son, til forlikunar fyrer vorar synder.

11. Þer ástsamleger! fyrst Gud hefir oss svo elskad, þá skulum ver einnenn elska oss innbyrdis.

12. Eingenn hefir Gud nockru sinne sed. Ef ver elskum oss innbyrdis, þa blifur Gud i oss, og hans kærleike er fullkominn i oss

13. Þar af þeckium ver, at ver blifum i honum, og hann i oss, þvíat hann hefir gefed oss af sínum anda.

14. Og ver sáum, og vitnum, at faderenn hefir sendt soneun til heimsins lausnara.

15. Hver nú vidurkenner, at Jesus er Guds sonur, i þeim blifur Gud, og hann i Gude.

16. Og ver höfum þeckt, og trúat þeim kærleika, sem Gud hefir til vor. Gud er kærleikur, og hver i kærleik blifur, sá blifur i Gude, og Gud i honum.

17. J því er kærleikurenn fullkominn hiá oss, at ver höfum diørfung á dege dómsins, þvíat likasem hann er, svo erum ver einnenn i þessum heime.

18. Hrædsla er eige í kærleika, helldur útdrífur fullkominn kærleike hrædsluna, þvíat hrædslann hefir kvøl, enn hver hann hrædest, sá er eige fullkominn i kærleika.

19. Látum oss hann elska, því hann hefir elskad oss fyrre.

20. Ef einnhver seger: eg elska Gud; og hatar sinn bródur, sá er lygare. Því hver hann elskar eige sinn bródur, hvern hann ser, hvernen getur sá Gud elskad, þann hann ser eige?

21. Og þetta bodord höfum ver af honum, at hver hann elskar Gud, hann elske og einnenn sinn bródur.

## 5. Capitule.

1. Hver hann trúer at Jesus se Christur; sá er af Gude fæddur. Og hver hann elskar hann, sem hann hefir fædt, sá elskar og einnenn þann, sem af honum er fæddur.

2. Þar af þeckium ver, at ver Guds børn elskum, nær ver elskum Gud, og haulldum hans bodord.

3 Þvíat þad er kærleikur til Guds, at ver holldum hans bodord, og hans bodord eru eige þúng.

4. Þvíat allt hvad af Gude er fædt, þad yfervinnur heimenn. Og vor trú er yfervinning, hver verølldena hefir yfervunned.

5. Enn hver er hann, sem verølldena yfervinnur, útan alleinasta sá, sem trúer, at Jesus se Guds sonur? Þesse er sá, sem kemur med vatne og blóde, Jesus Christus, eige med vatne alleinasta, helldur med vatne og blóde. Og andenn er sá, sem vitnar, at andenn er sannleikur.

6. Þvíat þrir eru þeir sem vitnisburd gefa á himne, faderenn, ordet, og heilagur ande, og þeir þrir eru eitt.

7. Og þrír eru þeir sem vitnisburd gefa á jørdu, andenn, vatned, og þesser þrír eru eitt.

8. Ef ver medtøkum mannanna

vitnisburd, þá er þö Guds vitnisburdur meire, Þvíat Guds vitnisburdur er sá, at hann hefir vitnad af sínum syne.

9. Hver hann trúer á Guds son, sá hefir þenna vitnisburd hiá ser.

10. Hver hann trúer eigi Gude, sá gerer hann at lygara, því hann trúer eigi þeim vitnisburde, hvern Gud vitnar af sínum syne.

11. Og þetta er vitnisburdur enn, at Gud hefir gefed oss eylíft líf. Og þetta líf er í hans syne.

12. Hver sem Guds son hefir, sá hefir lífed. Hver hann hefir eige Guds son, sá hefir eige lífed.

13. Þetta skrifade eg ydur, þer sem trúed á nafn Guds sonar, svo at þer vited, at þer hafed eylíft líf, og svo at þer trúed á nafn Guds sonar.

14. Því þad er sú dirfung, sem ver høfum til hans, at ef ver bidum nockurs, efter hans vila, þá heyrer hann oss.

15. Og fyrstiver vitum, at hann heyrer oss, hvad ver um bidum, þá vitum ver, at ver þær bæner høfum, hverar ver høfum beded af honum.

16. Ef nockur ser sinn bródur syndgast einhverja synd, eige til dauda, sá má bidia, og hinn hann gefa þeim lífed, sem syndgade, eige til dauda. Þar er synd til dauda, eg sege eige, at nockur skule fyrer henne bidia.

17. Allt ránglæte er synd, og þar er synd eige til dauda.

18. Ver vitum, at hver af Gude er fæddur, sá syndgar eige, helldur sá af Gude er fæddur, hann vardveiter sig, og hinn vonde mun eige snerta hann.

19. Ver vitum, at ver erum af Gude, og at allur heimurenn liggur í vondu.

20. Enn ver vitum, at Guds sonur er komenn, og hefir gefed oss þad sinne, at ver þeckium þann, sem sannur er og erum í hinum sanna hans syne Jesu Christo. Þesse er sannur Gud, og eylíft líf.

21. Barna korn! vared ydur vid afgudum, amen.

Ender S. Johannis Pistils.

# Hinn annar Pistill S. Johannis.

## 1. Capitule.

1. Hinn elldste, þeirre útvaulldu frú, og hennar børnum, hver eg elska í sannleika, og eigi alleinasta eg, helldur einnenn aller þeir, sem þeckia sannleikann.

2. Fyrer sannleikans saker, sem í oss blifur, og hiá oss mun vera at eylífu.

3. Náð, miskun, fridur af Gude fødur, og af Drottne Jesu Christo, syne fødursins, í sannleika og kærleika, se med oss.

4. Næsta gladur em eg, at eg hefe funded medal þinna barna þá í sannleiknum gánga, svo sem ver høfum þad bodord af fødurnum medteked.

5. Og nú bid eg þig, frú! eige skrifa eg þer til svo sem eitt nytt bodord, helldur hvad ver høfum haft frá upphafe, at ver elskum oss innbyrdis.

6. Og þad er kærleikurenn, at ver gøngum efter hans bodorde. Þetta er þad bodord, eins og þer hafed heyrt af upphafe, uppá þad þer gánged þar inne.

7. Því marger afvegáleidendur eru komner í heimenn, sem eige vidurkenna Jesum Christum í holldenu komenn at vera. Þesse er sá afvegáleidare og antichristur.

8. Siáed ydur fyrer, at ver gløtum eige því, hvad ver høfum verkad, helldur svo at ver medtøkum fullkomen verdlaun.

9. Hver hann yfertredur, og blífur eige í lærdóme Christi, sá hefir enganri Gud: hver sá blífur í Christi lærdóme, sá hefir bæde fødurenn og sonenn.

10. Ef einhver kemur til ydar, og med sér flytur eige þennan lærdóm, þann medtaked eige í ydart hús, og heilsed hønum eige.

11. Því hver hønum heilsar, sá gerer sig hluttakara hans vondra verka.

12. Eg hefe margt at skrifa ydur, enn eg vil eige med brefe og bleke, helldur vona eg at koma til ydar, og munnlega vid ydur tala, uppá þad, vor fagnudur fullkomenn verde.

13. Þer heilsa børn systur þinnar, hinnar útvøldu, amen.

# Hinn þridi Pistill S. Johannis.

## 1. Capitule.

1.Ølldungurenn heilsar Gajo, hinum elskulega, hvern eg elska i sannleika.

2. Minn elskulege! eg óske i øllum greinum, at þer vel vegne, og at þú heilbrigdur sert, svo sem þad einnenn þinne sálu vel vegnar.

3. Eg gladdest nærsta, þá brædurner komu, og gáfu vitnisburd af þinum sannleika, svo sem þú og gengur í sannleiknum.

4. Eg hefe eige nockurn fagnud meire enn þann, at eg heyre, at mín børn gánga í sannleika.

5. Minn ástúdlege! þú gerer trúlega hvad þú gerer vid brædurnar og gestena.

6. Hverer af þínum kærleika hafa vitnisburd gefed fyrer søfnudenum. Og þad hefir þú vel gert, at þú hefir þá fyrer Gude verduglega á veg leidt.

7. Því fyrer hans nafns saker eru þeir útfarner, og hafa af heidingum eigi teked.

8. Því skulum ver þess háttar med taka, at ver seum medhiálparar sannleiksins.

9. Eg skrifade søfnudenum til, enn Diotrephes, sá medal þeirra vill mikels meten vera, medtekur oss eige.

10. Fyrer því, nær eg kem, vil eg áminna hann um sín verk, sem hann gerer. Hann þvætter med vondum ordum gegn oss, og lætur sér eige þad ánægia, at hann medtekur eige siálfur brædurnar, og varnar þeim, sem þad vilia gera, og útrekur þá af søfnudenum.

11. Minn kæraste! efterfylg eige hinn vonda, helldur því hinu Góda. Hver godt gerer, hann er af Gude. Hver illa gerer, sá ser eige af Gude.

12. Enn Demetrius, hann hefir vitnisburd af hverium manne, og af sannleikunum siálfum: og ver bernm einnenn vitne, og þer vited, at vor vitnisburdur er sannur.

13. Eg hefde vel margt at skrifa, enn eg villde eige med bleke og penna til þin skrifa.

14. Enn eg vænte, at eg mune skiarlega siá þig, og þá vilium ver munnlega vidtalast.

15. Fridur se med þer: þer heilsa vinerner. Heilsa þú vinunum med nafne.

Ender Hins þrida Pistils S. Johannis.

# Pistillenn til Ebræos.

## 1. Capitule.

1. Efter þad, Gud fordum morgu sinne og margháttadlega talade til fedranna fyrer spámennena.

2. Þá hefir hann á þessum sídurstum dogum til vor talad fyrer sonenn, hann hann setie til erfinga yfer alla hlute, fyrer hvern hann hefir einnenn verolldena skapad.

3. Hver, med því hann er liómie hans dyrdar, og rett ímind hans veru, og ber alla hlute med sinu kroftuga orde, þá hann hafde gert hreinsun vorra synda, syrer sig siálfann, þá sette hann sig til hægre handar tignenne á hædum.

4. Svo miklu ædre ordinn einglunum, sem hann hefir miklu framar þeim erst eitt hærra nafn.

5. Þvíat til hvers engels þá hefir hann nockru sinne sagt? þú ert minn sonur, í dag ól eg þig? og enn annad sinn: eg mun hans fader vera, og hann mun minn sonur vera.

6. Og enn aftur, sem hann innleider hann frumgetna í heimenn, seger hann: og hann skulu aller Guds englar tilbidia.

7. Af englunum seger hann at sonnu, sína engla gerer hann anda, og sína þenara elldsloga.

8. Enn af syneunum: Gud, þitt sæte varer frá eylífd til eylífdar, stiórnarvondur þíns rikes er upprettur vondur.

9. Þú hefir elskad rettlæte, og hatad ránglæte, fyrer því hefir Gud, þinn Gud, smurt þig med vidsmiore fagnadar, framm yfer þína hlutttakendur.

10. Og þú Drottinn hefir af upphafe jordena grundvallad; og himnarner eru þín handaverk.

11. Þeir sömu munu forgánga, enn þú munt blífa, og aller munu þeir elldast sem annad fat.

12. Og svo sem klæde munt þú þeim umhverfa, og þeir munu umhverfast, enn þú ert siálfur hinn same, og þín ár munu eigi þrotna.

13. Enn til hvers engels hefir hann nockurn tíma sagt: Set þig til minnar hægre handar, þar til eg legg þína óvine til skarar fóta þinna?

14. Eru þeir eigi aller þiónustuander andar, útsender til þiónustu, vegna þeirra, sem erfa skulu sáluhiálpena?

## 2. Capitule.

1. Þar fyrer biriar oss at gefa þess framar gaum at því vide, þat ver heyrum, svo at ver eigi forumst.

2. Því ef þat ord er stødugt vorded, sem fyrer englana er talad, og hvers yfertrodsla og óhlydne hefir medteked sin retiferdug laun,

3. Hvernenn vilum ver þá umflya, ef ver gætum eigi slíkrar sáluhiálpar? Hver, med því hún var fyrst predikud fyrer Drottenn, þá er hún komen til vor fyrer þá, sem hana heyrdu.

4. Og Gud gaf þeim vitne, med táknum og dádsemdum, og margháttudum kraftaverkum, og med útskiftingu heilags anda, efter sinne villd.

5. Þvíat hann hefir eigi englunum undergefed þá efterkomande verølld, um hvera ver trúum.

6. Þat vottar enn nockur í einum stad, svo segande: Hvad er madurenn, at þú minnest hans? Og mannfins sonur, at þú viter hans?

7. Litla stund hefir þú hann englanna þarfnast láted; med dyrd og heidre koronader þú hann, og setter hann yfer verk þinna handa.

8. Alla hlute hefir þú underlagt hans fótum. Í því hann underlagde hønum alla hlute, þá hefir hann ecki efterskiled þat hønum se eigi undergefed. Enn nú fyrst at sinne siáum ver eigi, at hønum seu aller hluter undergefner.

9. Enn hann sem um stundarsaker hefir englanna þarfnast, siáum ver, at þat er Jesus, fyrer pínu daudans, koronadur med dyrd og heidre, uppá þat, at hann af Guds nád, fyrer alla daudann smackade.

10. Þvíat þat sæmde hønum, hvers vegna aller hluter eru, og fyrer hvern aller hluter eru, sá mørg børn hefir til dyrdarennar leidt, at hann høfdingia þeirra sáluhiálpar fyrer píslena fullkomenn gerde.

11. Med því þeir koma aller af einum, bæde sá sem helgar, og þeir sem helgader verda: fyrer því blygdast hann eigi þá brædur at kalla.

12. Og seger: Kunngera vil eg nafn þitt mínum brædrum, og mide í søfnudenum þer lof synga. Og enn aftur:

13. Uppá hann vil eg mig reida.

14. Og enn annad sinn: Siá þar, eg og þau børn, sem Gud hefir mer gefed. Nú med því børnen hafa holld og blód, þá er hann einnenn í sama þess hluttakare ordenn, at hann magtena tæke fyrer daudann, frá þeim sem daudans magt hafde, þat er Diøflenum;

15. Og endurleyste þá, sem fyrer ógn daudans hlutu alla æfe í þrælkan at vera.

16. Þvíat eigi tekur hann nockurstadar til sín englana, helldur tekur hann til sín sæde Abrahams.

17. Þar fyrer hlaut hann í øllum hlutum sínum brædrum líkur at verda, at hann miskunsamur yrde, og trúlyndur biskup fyrer Gude, til at forlíka fólksins synder.

18. Þvíat í því sem hann hefir lided, og freistadur er, þá kann hann þeim at hiálpa, sem freistader verda.

## 3. Capitule.

1. Hvar fyrer þer, heilager brædur, hverer og svo kallader erud med himneskre kallan, gefed gætur at þeim sendebodа og biskupe, þann ver vidurkennum Jesum Christum.

2. Sá trúr er þeim, sem hann hefir fyrersettann (líka sem Moysen í ollu sínu húse.

3. Enn þesse er meire heidrunar verdur enn Moyses, af því at sá hefir meire heidran af húsenn, sem þat tilbyr, enn húsed siálft.

4. Þvíat serhvert hús verdur af einhverum tilbúed; enn sá alla hlute tilbyr, hann er Gud.

5. Moyses var og at sonnu trúr í ollu hans húse, svo sem þiónustumadur, til vitnisburdar þess, sem sagt skyllde verda.

6. Enn Christur, svo sem sonur yfer sínu húse, hvers hús ver erum, ef ver annars trúnadartrauste, og hrósan vonarennar, allt til enda, fastlega holldum.

7. Hvar fyrer, svo sem heilagur ande seger: í dag, ef þer heyred hans rodd.

8. Þá forherded eigi ydar hiortu, svo sem í reide skede á freistingardege í eydemorku.

9. Hvar ydrir fedur freistudu mín; þeir reyndu mig, og sáu mín verk, í fiorutíu ár.

10. Fyrer þat vard eg reidur þessare kynslód, og sagde: Jafnlega fara þeir viller med hiartann, enn eigi vissu þeir mína vegu.

11. Svo eg einnenn svór í minne reide, at eigi skylldu þeir koma til minnar hvíldar.

12. Siáed til, kærer brædur, at eigi nockur medal ydar hafe vondt vantrúad hiarta, þat frágángande se Gude lifanda.

13. Helldur áminned ydur siálfa alla daga, svo lenge sem þat í dag kallast, at þar einginn á medal ydar forherdest, af svikræde syndarennar.

14. Því ver erum Christi hluttakarar vordner, ef ver annars uppbirtudu trúnadartrauste allt til enda fastlega holldum.

15. Svo lenge sem sagt verdur: Í dag, ef þer heyred hans rodd, þá forherded eigi ydar hiortu, svo sem í þeirre hardydge skede.

16. Þvíat sumer, þá þeir heyrdu, birtudu þeir at uppreita hann, þó eigi aller þeir sem útgengu af Egyptalande fyrer Moysen.

17. Enn hverum reiddest hann í fiorutíu ár? Er eigi svo? Þeim sem syndgudu, hverra hræ nidur hrundu í eydemorku.

18. Enn hverum svór hann, at þeir skylldu eigi koma til hans hvíldar, nema þeim sem vantrúader voru?

19. Og ver siáum, at þeir hafa eigi kunnad inn at koma, vantrúarennar vegna.

## 4. Capitule.

1. Því látum oss nú hrædast, at ver forsómum eigi þat fyrerheit, inn at koma til hans hvíldar, og eingenn vorra efter verde.

2. Því þat er oss einnenn kunngert, svo sem hinum. Enn orded predikunarennar hiálpade hinum eigi, sem eigi trúdu og þat heyrdu.

3. Þvíat ver, hverer trúum, inngaungum í hvíldena, svo sem hann seger: Eg svór í minne rei-

de, at eigi skylldu þeir til minnar hvíldar koma. Og at sønnu, þá þau verk í upphafe veralldar gerdust.

4. Sagde hann í nockorum stad af hinum siøunda dege svo: Og Gud hvíldest á siøunda degi af øllum sínum verkum.

5. Og her í þessum stad enn aftur: Þeir skulu eigi koma til minnar hvíldar.

6. Med því þat er enn fyrer høndum, at nockorer skulu til þeirrar sømu koma. Og þeir, hverium þat í fyrstu kungert var, eru þar eigi tilkomner, fyrer þeirra vantrúar saker.

7. Þá ásetur hann enn aftur einn dag, efter slíkann langann tíma, og seger fyrer David: Í dag, svo sem sagt er, í dag, ef þer heyred hans rødd, þá forherded eigi ydar hiørtu.

8. Því ef Josua hefde þá til hvíldar leidt, hefde hann eigi efter þat af nockorum ødrum dege sagt.

9. Fyrer því er þar enn hvíld fólke Guds fyrer høndum.

10. Þvíat hver til hans hvíldar er komenn, hann hvílest einnenn af sínum verkum, svo sem Gud af sínum.

11. Svo látum oss nú kapp áleggia, inn at koma til þessarar hvíldar, uppá þat, at eingenn falle í þat sama eptirdæme vantrúarennar.

12. Þvíat Guds ord er lifande og krøftugt, og hvøssu tvíeggiudu sverde hvassara, og þrenger ser í gegnum allt, þar til þat í sundur skilur sálena og andann, og merg og bein, og er dómare hugrenninga og hiartans hugarlundar.

13. Og þar er eingen skepna fyrer honum ósýneleg: aller hluter eru nakter og óhulder fyrer hans augum, af hverum ver tølum.

## 5. Capitule.

1. Med því þá ver høfum einn biskup, hver mikell er, Jesum son Guds, sá til himens er farenn, svo látum oss hallda vidurkenningunne.

2. Þvíat ver høfum eigi þann biskup, sem eigi kann sampíning hafa med vorum breiskleika, helldur þann sem freistadur er á allann hátt, líka svo sem ver, þó án syndar.

3. Fyrer því látum oss þat at gánga med hugarhreysie, til þess nádar stóls, svo at ver ødlumst miskunseme á þeim, nær ver þurfum fulltíngis vid.

4. Þvíat hver biskup, sem medal manna tekenn er, sá verdur fyrer menn settur, í þeim hlutum sem Gude tilheyra, at hann fornfære gáfur, og helgeoffur fyrer syndernar.

5. Sá sem samaumka kann, þeim sem fávíser eru, og villerfara, med því hann er siálfur umgefenn med breiskleika.

6. Fyrer þat hlýtur hann jafnlíka sem fyrer fólked, einnenn fyrer sig siálfann at offra fyrer syndernar.

7. Og eingenn tekur ser siálfum þann heidur til, helldur hann sem kalladur verdur af Gude svo sem Aaron.

8. Svo hefir Christur einnenn eigi sig siálfann innsett í þann heidur, at hann yrde biskup, helldur sá sem til hans hefir sagt: Þú ert minn sonur, í dag ól eg þig.

9. Sem hann einnenn enn í ødrum stad seger: Þú ert eylíflega

kennemadur, efter skickan Melchisedech.

10. Og hann hefir á døgum síns holldz bæner og beidne, med oflugu kalle og tárafollum, offrad til hans, sem hønum frá dauda biarga kunne, og er einnenn bænheyrdur, fyrer þat hann veasamade Gud.

11. Og þóat hann være Guds sonur, hefir hann þó, í því hann leid, hlydne lært.

12. Og þá hann fullkomnadur var, er hann ordenn øllum, hverer hønum hlydnger eru, orsøk eylífrar sáluhiálpar.

13. Af Gude biskup kalladur, efter skickan Melchisedechs.

14. Þar um hefdum ver margt at sega. Enn þat er þúngt, á medan þer svo skilningslauser erud.

15. Og þer sem fyrer longu skyldud meistarar vera, þursed nú vid aftur, at menn kenne ydur þá fyrstu bókstafe Gudlegs ords, og ver gefum ydur miólk og engann megnann mat.

16. Þvíat hverium ver hliótum miólk at gefa, sá er óreyndur i orde rettlætesins, þvíat hann er úngbarn.

17. Enn hinum fullkomnum heyrer megn matur, sem af sidvana hafa tøkad sinne, til frágreiningar góds og ills.

## 6. Capitule.

1. Fyrer því vilium ver þann lærdóm af upphafe Christelegs lifernes, nú kyrrann láta, og til algiørfeleiks gánga, eigi aftur at nyu grundvøll leggiande iðrunar ennar dauðra verka, um trúna á Gud.

2. Um skírnena og lærdóm handa uppáleggingar, um upprísu frammlidenna, og um þann eylífa dóm.

3. Og þetta vilium ver gera, ef Gud vill annars lofa.

4. Þvíat þat er ómøgulegt, at þeir sem eitt sinn upplyster eru, og smackad hafa himneska gáfu, og hlutrakarar eru vorduer heilags anda.

5. Og smackad hafa hid góda Guds ord, og kraft efterkomande veralldar,

6. Ef þeir af'alla (og krossfesta siálfum sér fon Guds aftur, og hann fyrer skimp hallda) at þeir skyllou kunna aftur endurnyader at verda til yferbótar.

7. Því jørdenn sem dreckur regn, þat oftsinnis á hana kemur, og hagkvæmelegar jurter ber þeim sem hana yrkia, medtekur blessan af Gude.

8. Enn hún sem þistla og þirna ber, hún duger eigi, og er bølvan nær, hver at síðurstu uppbrend verdur.

9. Enn ver treystum, elskuleger, betur til ydar, og at sáluhiálpen nánare se, þó at ver tølum svo.

10. Þvíat Gud er eigi ránglátur, at hann gleyme ydrum gerninge og kærleikans erfide, sem þer audsyndud i hans nafne, þá þer þiónudud heiløgum, og enn þióned.

11. Enn ver girnumst, at hver einn ydar audsyne þá sømu gofgæfne, vonenne fast at hallda allt til enda.

12. At þer eigi óskadfaster verded, helldur seud efterfylgarar þeirra, sem fyrer trú og þolennmæde fyrerheited erfa.

13. Því þá Gud fyrerhet Abraham, þá hann vid engann stærra hafde at sveria, svór hann vid siálfann sig,

14. Og sagde: Sannlega vil eg blessa og margfallda þig.

15. Og hann bar svo þolenmódlega bidlund, og ødladest fyrerheited.

16. Menn sveria vid einn ædra enn þeir siálfer eru, og sá eidur gerer enda allrar þrætu, svo at trúlt blisur mille þeirra.

17. Enn þá Gud villde yfergnæfanlega audsyna erfingium fyrerheitesins at sitt rád er eigi óstöðugt, hefir hann þar til eid álagt,

18. Upp á þat ver hefdum fyrer tvær greiner, þær óbifanlegar eru (þvi þat er ómøgulegt at Gud liúge) sterkt traust, ver sem athvarf höfum, fastlega haldum þeirre frammbodinne von.

19. Hvera ver höfum sem annad fast og sterkt akkere vorrar sálar.

20. Sú einnen inngengur í hid innra fortiálldsins, þar fyrerrennarenn er fyrer oss inngengenn, Jesus at eylífu biskup vordenn, efter skickan Melchisedechs.

7. Capitule.

1. Enn þesse Melchisedech var konungur til Salem, kennemadur Guds hins hædsta, hver Abraham móte geck, þá hann kom aftur frá slage konunganna, og blessade hann.

2. Hverum og svo Abraham gaf tíund af öllu sínu gótse. Í fyrstu útleggst hann konungur rettlætesins; efter þat er hann einnenn konungur Salem, þat er kongur fridarens.

3. Utan födur, útan módur, án slekts, hafande hverke upphaf daga, ne endalok lífs; enn hann er samjafnadur syne Guds, og blisur kennemadur at eylífu.

4. Enn gæted at, hvérsu mikell hann er, hverum Abraham sá Patriarche gaf tíund af herfángenn.

5. Og at sönnu syner Levi, þá þeir medtaka kennemannsskap, hafa þeir bodord tíund inn at taka af fólkenu, þat er af þeirra brædrum, efter lögmálenu, þó at þeir sömu sen einnen af Abrahams lendum komner.

6. Enn hann, hvers kynferde eigi nefnt verdur medal þeirra, sá tók tíund af Abraham, og blessade hann sem fyrerheiten hafde.

7. Enn án alls mótmælis er þat svo, at þat hid minna, verdur af hinum ædra blessad.

8 Og her taka tíund dandleger menn, enn þar vottar hann, at hann life.

9. Og svo at sega, Levi, sá tíundena medtekur, er einnenn tíundadur fyrer Abraham.

10. Þvi hann var enn þá í lendum fødur síns, þá Melchisedech geck móte hönum.

11. Þvi, ef at fullkomnan være vorden fyrer levitiskan kennemannsskap (þvi under þeim hinum sama hefir lýdurenn lögmáled niedteked) hvad være þörf framar meir at sega, at annar kennemadur skylldeþar koma efter skickan Melchisedech, og eigi efter skickan Aarons?

12. Þviat hvar kennemansskapur umskistest, þar hlytur einnenn lögmáled at umskiftast.

13. Þvi sa af hverum þetta er sagt, sá er af ødru slekte, útaf hvi sem eingenn nockurn tíma alltarenu þiónad hefir.

14. Þvi þat er þó openbert, at vor Drottinn er komenn af

Juda, til hvers slekts Moyses hefir eigi talad um kennemannsskapenn.

15. Og svo er þat enn lioſara, ef at annar kennemadur uppkemur, efter ſkickun Melchiſedechs.

16. Sá eigi er gerdur efter lögmále lickamlegs bodords, helldur efter krafte bendanlegs lífs.

17. Þvi hann vitnar: þú ert kennemadur at eylifu, efter ſkickan Melchiſedechs.

18 Þvi þar med verdur hid fyrra lögmáled afteked, vegna þeſs þat var ofveikt, og eigi nytſamlegt.

19. Þvi lögmáled kunne eigi oſs fullkomna at gera, enn þar innleidest ein betre von, fyrer hvera ver nálægumſt Gude.

20. Og þar ofan á, hvad mikid er, eigi án eids, þviat hiner eru án eids kennemenn verdner,

21. Enn þeſſe med eide, fyrer þann ſem til hans feger: Drottinn ſvór, og þat mun eigi idra hann; þú ert kennemadur at eylifu, efter ſkickan Melchiſedechs.

22. Svo nærſta mikln betra teſtamentis tilſagnare er Jeſus vordenn

23. Og hiner adrer eru marger, ſem kennemenn urdu, fyrer þat, at daudenn leyfde þeim eigi at blifa.

24. Enn þeſſe, fyrer þvi hann eylifflega blife, þá hefir hann óforgengelegann kennemannsſkap.

25. Þar fyrer kann hann og einnenn þá ætid ſáluhjálpna at gera, ſem fyrer hann koma til Guds, og hann lifer æfenlega, og bidur fyrer þeim.

26. Þviat ſlickann biſkup ſkylldum ver hafa, ſá ſem være heilagur, ſaklaus, óſleckadur, ſyndugum fráſkilenn, og hærre enn himnenn er.

27. Hverum daglega þörf eigi gereſt, ſvo ſem hinum ödrum biſkupum, ad fyrſtu fyrer ſinar egenlegar ſynder at fórnfæra; efter þat fyrer fólkſins ſynder; þvi þat gerde hann einuſinne, þá hann ſiálfann ſig fórnfærde.

28. Þvi þá menn gerer lögmáled til ædſtu preſta, ſem hafa breiſkleik: Enn þat med eide ſtadfeſta fyrerhét, ſem gafſt efter lögmálet, ſetur ſonenn, ſem er eylifelega og innvigdur.

## 8. Capitule.

1. Svo er nú þetta hid ſerlegaſta ágrip þeſs ver umtölum; ver höfum þann biſkup ſem ſitur til hægre handar á tignarſtóle á himnum,

2. Og er forſtödumadur heilagra audæfa, og ſannarlegrar tialldbúdar, hvera Gud hefir uppreiſt, og eingenn madur.

3. Þviat hver biſkup verdur tilſettur at offra giafer og fórner. Fyrer þvi hlytur þeſſe einnenn nockud at hafa, þat hann offre

4. Og være hann nú á jördu, þá være hann eigi preſtur, med því þar eru preſtar, ſem efter lögmálenu giafer offra.

5. Hverer þió a þeirre fyrermind og ſkugga himneſkra audæfa, ſvo ſem þat gudlega andſvar til Moyſen ſagde, þá hann tialldbudena fullkomna ſkylde: Siá til (ſagde hann) at þú alla hlute gerer efter þeirre lickingu, ſem þer er á fiallenu ſynd.

6. Enn nú hefir hann ædra embætte odlaſt, ſvo ſem ſá betra teſtamentis medalgöngumadur er

er, hvert eimnen á ædra fyrerheite stendur.

7. Því ef hitt fyrra hefde óstraffanligt vered, þá hefde rums eigi leitad vered hinu ödru.

8. Því hann straffar þá, svo segande: Siáed, þeir dagar munu koma, seger Drottinn, at eg vil yfer hús Israels, og yfer hús Juda, gera eitt nytt nytt testament.

9. Eigi efter því testamente sem eg gerde vid fedur þeirra, á þeim dege, þá eg tók í þeirra hond, til at útleida þá af Egypta lande. Því þeir bliftu eigi í mínu testamente, þá villde eg og eigi akta þá, seger Drottinn.

10. Þvíat þetta er þat testament, hvad eg vil gera húse Israels, efter þessa daga, seger Drottinn: mitt lögmál vil eg gefa í þeirra hugskot, og í þeirra hiörtu vil eg þat skrifa, og eg vil þeirra Gud vera, og þeir skulu mitt fólk vera.

11. Og eigi skal nockur kenna sínum náunga ne sínum bródur, og sega: þeckþú Drottinn, þvíat þeir skulu mig aller þeckia, frá hinum minnsta, til hins stærsta.

12. Þvíat eg vil líknsamur vera þeirra vondsku og syndum, og þeirra ránglæte vil eg eige framar í minne leggia.

13. Í því sem hann seger: eitt nytt, gerde hann þad fyrra gamallt. Enn hvad gamallt og alldrad er, þad er nærre endalokum sínum.

## 9. Capitule.

1. Hin fyrra tialdbúd hafde og at sönnu laug um Guds þiónustu, og veralldlegan heilagdóm.

2. Þvíat hinn fremre hlutur tialldbúdarennar var uppgerdur, í hverium voru liósastikur, borded, og skodunarbrauden, og þetta kallast þad Heilaga.

3. Enn á bake hins fortialldsens var sú tialldbúd, sem kalladest hid allraheilagasta, hvered hafde þad gullega reikelsisker og testamentis örkena.

4. Alla vega gulllagda, í hverre var gullkatan, sem himnabrauded hafde, og vondur Arons, sem blómgast hafde, og bodordaspiöllden.

5. Enn þar uppyfer voru Cherubim dyrdarennar, yferskyggiande nádarstólinn, af hveru nú er eige neitt serlegt at sega.

6. Þá þetta var nú svo til búed, gengu kennemennerner idugleg í þá fremre tialldbúd, og afluku Guds þiónustugerd.

7. Enn í hina adra tialdbúd inngeck höfudprestinn alleina einusinne á áre, eige án blóds, hvert hann offrade fyrer sinar egen og fólksins yfertrodslur.

8. Med þessu ávísade hinn heilage ande at vegurenn til þess allra helgasta være enn þá eigi openberadur svo lengi hin fyrre tialdbúd stæde.

9 Þetta hlaut at vera fyrer líking til nálægstíma, svo sem og at giafer og fórner offrast, þó at þær eigi kunnu at sefa samvitsku þess, sem Guds þiónustuna fremde.

10. Af því at þessar reglur um þá syneligu Guds þiónustu vidvikia einasta mat og dryck og þeim margvíslegum þvottum, og skulu eigi vara lengra enn til betrunarennar tíma.

11. Enn þá Christur kom, er hann svo sem höfudprestur tilkomande audæfa gengenn gegnum stærre og algiördare tialdbúd, hver

eigi er med høndum gerd, þad er, hver eige er svo tilbúen.

12. Eige med blóde hafra og kálfa, helldur med sínu egen blóde, er hann inngengenn í hid allra heilagasta, og fann eylífa endurlausn.

13. Því ef uxa og hafra blód og aska kvigunnar dreifd á hina saurugu hreinsar þá í tillite til líkamligrar hreinsunar.

14. Hversu miklu framar mun þá blód Christi, sem siálfann sig hefir án fleckunar, fyrer Heilagann anda, Gude offrad, hreinsa vorar samvitskur af dauduni verkum, til at þióna Gude lifanda?

15. Og þar fyrer er hann einnenn medalgøngumadur hins nya testamentis, svo at fyrer þann dauda, sem skedur er til forlíkunar fyrer þær yfertrodslur, hverar under hinu fyrra testamente gerdust voru þeir, sem kallader voru, medtake þann fyrerheitna eylífa arf.

16. Því hvar testamented er, þá hlytur þar þess daude at ske, sem testamented gerer.

17. Þviat eitt testament verdur stadfest fyrer daudann, ellegar duger þad eige, medan hann nú lifer sem þad hefir gert.

18. Hvar fyrer hid fyrra var eige án blóds tilskickad

19. Því þá Moyses hafde uppløst øll bodord efter løgmálenu, fyrer øllu fólkenu, tók hann kálfa og hafra blód, med vatne og purpura, ullu og ísope, og støckte á bókena, og allt fólked.

20. Segande: Þetta blód er þess testamentis, hvert Gud hefir boded ydur.

21. Og líka einnenn tialldbúdena, og øll verkfære Guds þiónustugerdar, ástøckte hann med blódenu

22. Og nærsta því urdu aller hluter med blóde hreinsader, efter løgmálenu, og án blóds úthellingar sker eingen syrergefning.

23. Svo hlutu nú fyrerlíkingar himneskra hluta, med slíku hreinsadar at verda. Enn hiner himnesku hluter siálfer hlióta betre fórner at hafa, enn hinar voru.

24. Því Christur er eige inngengenn í þad hid Heilaga, sem med høndum er gert hvert, er rett ímind þess hins sanna, helldur í himenenn siálfann, svo at hann auglýsist nú fyrer Guds auglite fyrer oss.

25. Eige helldur, at hann offre sig oft, líka svo sem hiner adrer biskupar, þeir á hvøru áre inngengu í hid Heilaga, med annarlegu blóde.

26. Annars hefde hann aftur hløted at lída, frá veralldar upphafe, enn nú í endalok veralldar, byrtest hann eitt sinn, fyrer sína egen fornfæring, til burttøku syndarennar.

27. Og líka svo sem þad mønnum er tilskickad, einusinne at deya, og efter þad er dómurenn, svo er Christur einusinne offradur, til í burt at taka margra synder, enn í annad sinn mun hann byrtast útan syndar, øllum þeim sem hans vænta til sáluhiálpar.

## 10. Capitule.

1. Þviat løgmáled hefir skugga efterkomande audæfa, eige líkneski siálfra audæfanna. Hvert ár hlióta iafnan at offrast sama slags offur, og þad kann þó eige þá, sem offra, fullkomna at gera.

2. Annars hefde offred aflagst,

hefdu þeir sem i Guds þiónustu-
gerd voru, enga samvitsku fram-
ar meir haft af syndenne, þá þeir
voru eitt sinn hreinsader.
3. Helldur sker at eins fyrer þad,
minning syndanna hvert ár.
4. Þvíat þad er ómøgulegt,
fyrer uxa og hafra blód, synder
burt at taka.
5. Fyrer því. sem hann kemur
í veröldena, seger hann: offur
og fórner villder þú eige, enn lík-
amann tilreidder þú mer
6. Brennefórner og syndaoffur
þocknast þer eige.
7. Þá sagde eg: at eg kem:
fyrst í bókenne er skrifad af mer;
at eg skule gera Gud þinn vilia.
8. Enn þar fyrer ofann sem
hann sagde: offraner og gáfur,
brennefórner og synda offur villd-
er þú eige, þær þocknudust þer og
eige hverar efter lögmálenu offr-
adar verda.
9. Þá sagde hann; siá, eg kem,
at gera, Gud! þinn vilia. Þar
burttekur hann hid fyrra, svo at
hann innseti hid annad.
10. Í hverium vilia ver erum
helgader einusinne skednum, fyrer
offran líkama Jesu Christi.
11. Og hver einn kennemadur
er tilsettur, at hann Guds þión-
ustugerd daglega ræke, og oftlega
sama slags offraner gere, hverar
alldrei kunna synder af at taka.
12. Enn þesse, þá hann hafde
offrad einne fórn fyrer syndernar,
hver æfenlega gillder, situr hann
nú til hægre handar Guds.
13. Og efterbídur frammvegis,
þar til hans óviner verda lagder
til skarar hans fóta.
14. Þvíat med einne offran
hefir hann at eylífu fullkomna gert
þá sem helgader verda.
15. Enn þad vitnar oss einn-
enn heilagur ande, efter því hann
ádur fyrre hafde saat:
16. Þetta er þad testament,
sem eg vil þeim gera, efter þessa
daga, seger Drottinn, mín lög
vil eg gefa i þeirra hiartu, og i
þeirra hugskotum vil eg þau
skrifa.
17. Og þeirra synder og ránglæte
vil eg eige meir í minne leggia.
18. Og hvar þesse hin sama
fyrergefning er, þar er, eingen offr-
an meir fyrer syndernar.
19. Fyrst ver høfum nú kærer
brædur, þá, diörfung til inngangs
í hid heilaga, fyrer Jesu blód.
20. Hvern hann vígde oss ny-
ann og lifande veg fyrer fortiallded,
þad er fyrer sitt holld.
21. Og ver høfum einn ædsta
prest yfer Guds húse.
22. Þá látum oss þar framm
at gánga med sannarlegu hiarta,
í algerdre trú, yfirdreifda í vor-
um hiørtum, og vidskila vid vonda
samvitsku, og þvegna á líkaman-
um med hreinu vatne.
23. Og látum oss hallda vid-
urkenningu vonarennar, og vera
eige óstadfasta, þvíat hann er trygg-
ur, sá því hefir fyrerheited.
24. Og látum oss athuga oss
siálfa innbyrdes, med áeggingu til
kærleiks og gódra verka.
25. Og eige forláta vorn søfn-
ud, svo sem sumra er sidur, helld-
ur at áminna hver annann, og
þad svo miklu framar, sem þer
berlegara siáed, at dagurenn er nær.
26 Því ef ver høfum medteked
vidurkenning sannleiksins, þá høf-
um ver enga adra offran framar-
meir fyrer syndernar.
27. Helldur hrædelegt efterbid
dómsins og þess vandlætingarsama

vâds, sem motstandarana svelgia mun.

28. Pegar nockur brotur mooses lögmál, þá hlytur sá at deya dian miskunar fyrer tvegga, edur þrigga vitne.

29. Hversu mikln verra straff meinid þer sá munne verdskullda, sem son Guds med fótum tredur, og sáttmálans blód saurugt reiknar, fyrer hvert hann er heigadur, og svivirder nádarennar anda?

30. Pviat ver vitum þann sem seger: mín er hesnden, eg vil aftursgialda, seger Drottinn. Og enn annad sinn: Drottinn mun dœma fólk sitt.

31. Hrædelegt er at falla í hendur lifande Guds.

32. Leggjed í minnie þá hina fyrre daga, á hverum þer upplystust, og lidud stórt kvalanna stríd.

33. Nockurn part, at þer Násser fyrer forsmán og þormungar erud ordner at kyssium; og nockurn part, at þer hafed lagsmenn vered þeirra, hverium svo hefir genged.

34. Pvi þer hofoud samþíning med mínum þondum, og rán ydvarra audæfa, med fagnadé umlidud þer, vitande ydur at hafa hia sialfum ydur adrar betre og blifanlegre eignr á himnum.

35. Kasted eigi burt ydru traustie, hvert mikled verdkaup hefir.

36. Enn þolinmœde er ydur naudsynleg, svo at þer gered Guds vilia, og medtaked fyrerheited.

37. Pviat enn má innan skams tíma mun koma, sá koma skal, og mun eige seinka.

38. En sá rettláte mun af trúnne lisa. Enn hver sem fráviskar, á þeim mun sála min hafa enga þócknan.

39. Enn ver erum eigi af þeim, sem vikia og syrerdæmder verda, helldur af þeim, sem trúa, og sálunne biarga.

## 11. Capitule.

1. Enn trúen er ørugt traust þeirra hluta sem madur vondr, og efar eige um þad, sem hann ser eige.

2. Fyrer hana fengu hiner gomlu vitnisburdenn.

3. Fyrer trúna skilium ver heimenn gerdann vera, fyrer Guds ord, og allt þad, hvad synelegt er, er vorded af engu.

4. Fyrer trúna hefir Abel Gude stærra offur gefed enn Cain, fyrer hvert hann hefir vitnisburd fenged, at hann rettlátur se, þá Gud gaf vitni um hans giafer, og fyrer hann talar hann enn, þó hann se látenn.

5. Fyrer trúna vard Enoch burtnumenn, at hann sæe eigi daudann, og vard eige fundenn, af því Gud tók hann burt. Pví ádur fyrre, enn hann var burtnumenn, hefir hann vitnisburdenn haft, at hann þócknadest Gude.

6. Enn án trúarennar er ómøgulegt Gude at þócknast. Pví hver hann vill koma til Guds, sá hlytur at trúa, at hann se, og at hann mune endurgialldare verda, þeirra sem hans leita.

7. Fyrer trúna hefir Noe vegsamad Gud, og [illegible] til hiálpræ[illegible] sins húss, þá hann medtók guðlega [illegible] um þad, hvad menn enn þá eige sáu, fyrer hvera hann verottena fordæmde, og er erfinge vordenn þess rettlætis, sem fyrer trúna kemur.

8. Fyrer trúna vard Abraham hlydenn, þá hann kalladur vard

út at gánga, í þad land, sem hann erfa skylde: og hann geck út, og visse eigi hvert hann munde koma.

9. Fyrer trúna var hann framande á því fyrerheitna lande, svo sem á annarlegu, og bió í tialldbúd, med Isaac og Jacob, sem voru mederfingar sama fyrerheitis

10. Því hann vonade á þá borg, sem grundvöll hefir, hverrar byggmeistare og skapare er Gud.

11. Fyrer trú medtók og, svo Sara kraft, at hún vard frióssom, og fædde, efter vanlegann getnadar alldur, þvíat hún hellt þann trufastann, sem hafde því lofad.

12. Fyrer hvad marger eru upprunner af einum, (þó at dáens líkama væru), líka sem stiornur himens, og svo sem sandur vid siávarströndu, sem óteliannlegur er.

13. Þesser aller eru í trúnne under lok lidner, og hafa eigi fyrerheite medteked, helldur af fiarska næga láted, og vidurkennt, at þeir væru á jördu gester og útlender.

14. Þvíat þeir sem þetta sega, þeir gefa til at skilia, at þeir efter einu födurlande leite.

15. Og at sönnu, ef þeir hefdu meint þad, frá hveru þeir voru útfarner, hefdu þeir nógann tíma haft aftur at snúa.

16. Enn nú gyrntust þeir annad betra, þad er þad himneska. Fyrer því óvirdest eige Gud, at nefnast þeirra Gud. Því hann hefir þeim eina borg fyrerbúed.

17. Fyrer trúna fornfærde Abraham Isaac, þá hann vard freistadur, og frammgaf hinn eingetna, þá hann nú hafde fyrerheited medteked:

18. Um hvern sagt var: Í Isaac skal þer þitt sæde kallad verda.

19. Og hann þeinkte, at Gud kynne og svo vel af dauda upp at vekia, hvar fyrer hann einnenn tók hann til fyrermyndunar aftur.

20. Fyrer trúna blessade Isaac, (af því hvad efterkomande var), Jacob og Esau.

21. Fyrer trúna blessade Jacob, þá hann dó, báda sonu Josephs, og gerde lotning fyrer toppnum á hans velldissprota.

22. Fyrer trúna talade Joseph um útgaungu Israels barna, þá hann dó, radstofun gerde fyrer sínum beinum.

23. Fyrer trúna vard Moyses, þá hann var fæddur, í þriá mánude falenn af sínum foreldrum, fyrer þad þau sáu, at hann var ágiætlegt barn, og hræddust eigi konungsins bod.

24. Fyrer trúna villde Moyses eige lengur, þá hann gerdest stór, kallast dótturdsonur Pharaónis.

25. Og kore miklu helldur, med fólke Guds, ómak at þola, enn at hafa stundlegt efterlæte syndarennar.

26. Og hellt vanvirding Christi fyrer stærra ríkdóm, enn Egyptalands fesióda, þvíat hann leit á launen.

27. Fyrer trúna forlet hann Egyptaland, og óttadest eige konungsins grimd, þvíat hann hellt sig at þeim, hvern hann sá eige, líka svo sem hann sæe hann.

28. Fyrer trúna hellt hann páska og blóds uthellingu, uppá þad, at eige skyldi sá snerta þá, sem frumburdena drap.

29. Fyrer trúna gengu þeir gegnum hafed rauda, svo sem um

burlende, hvers einnenn hiner Egyptsku freistudu, og drecktust.

30. Fyrer trúna nidurhrundu múrvegger Jericho, þá þeir høfdu í siau daga umtring hana genged.

31. Fyrer trúna vard Rahab, sú hórkona eige fortapud med van-trúudum, þá hún medtók þá niós-narmenn vinsamlega.

32. Og hvad skal eg meir sega? tímenn verdur mer ofstuttur, nær eg skylde frammþyla, af Gedeon, og Barach, og Samson, og Jephthe, og David, og Samuel, og spámønnunum.

33. Hverer fyrer trúna hafa konungaríke yferunned; rettlæted verkad; fyrerheiten ødlast; Leona munna tilbyrgt.

34. Elldsins megn útslecktt; sverdsins eggiar umflyd; kraftuger orded af breiskleika; øsluger gerst í stríde; annarlegra herbúdum umvellt.

35. Kvinnurnar hafa sína frammlidna af upprisunne aftur teked. Enn hiner adrer eru lemstrader, og hafa enga frelsan medteked, svo at þeir ødludust hina betre upprisu.

36. Sumer hafa hádung og húdstrokur lided, þar ofaná bønd og fiøtur.

37. Þeir eru steinum grytter, skammhøggner, gegnumstungner, fyrer sverde vegner. Þeir um hafa fared í saudafelldum og geit-skinnum, med eymdum, med harm-kvælum, med ómake.

38. Hverra heimurenn var eige verdur; hafa í eymd genged á eydemørkum, áfiøllum, í giáum og í hellrum iardar.

39. Þesser aller fengu vitnis-burdenn fyrer trúna, og hafa eige medteked.

40. Fyrer því, at Gud hefir eitthvad betra ádur tilforna um oss fyrerhugad, svo at þeir fyrer útan oss yrdu eigi fullkomner gerder.

## 12. Capitule.

1. Fyrer því einnenn ver, med því ver høfum slikann hóp votta umkring oss, þá látum oss aflegga synd, þá oss iafnan vidloder og letur; og látum oss hlaupa fyrer þolinmæde, í þá orustu, sem oss er tilskickud.

2. Og lyta til Jesum þess upp-byriara, og fullkomnara trúar-ennar, hver, þó at hann hefde vel mátt hafa fognud, þolde hann krossenn, og aktade eigi forsmán, og sette sig til hægre handar, á Guds stóle.

3. Minnest á þann, sem þvilík mótmæle gegn ser af syndurum þolde, svo at þer þreytest eige, og uppgefest eige í ydrum hugskot-um.

4. Því þer hafed enn eigi allt til blóds mótstaded í stríde mót syndenne.

5. Og hafed nú þegar gleymt því trúnadartrauste, sem til ydar seger, svo sem til barna: sonur minn, vird eige lítils typtan Drott-ins, og vvinglast eige, þó þú verder af honum straffadur.

6. Hvsat hvern Drottinn elskar, þann agar hann, enn hvern þann son, sem hann at ser tekur, þann stryker hann.

7. Ef þer typtun þoled, þá frammbydur Gud sig ydur sem børn-um, því hver sonur er sá, þann faderenn typte eige?

8. Enn ef þer erud án typt-unar, hverrar hiner aller eru

hluttakarar vorðner, þá erud þer hiábørn, enn eige børn.

9. Og ef ver høfum haft vora lijkamlega fedur, til ciptunar-manna, og þá hrædst, skyldum ver þá eige miklu meir undergefner vera hinum andlega fødur, svo at ver lifum.

10. Og hiner hafa sannlega fáeina daga oss agad, efter sínum gedþótta, enn hesse til uytsemdar, svo at ver ødlumst hans helgun.

11. Enn øll typtan, rær hún áliggur, þá þyker oss hún eingen glede, helldur hrigged vera. Enn efterá mun hún gefa fridsamlegann ávøxt rettlætesins, þeim sem þar í æfader eru.

12. Fyrer þvi uppreised aftur tregar hendur, og hin þreyttu kne.

13. Og gered rettann gáng med ydrum fótum, svo at eingenn hrase, (lijka sem sá halltrar), helldur miklu framar verde heilbrigdur.

14. Efterfylged fride vid hvern mann, og helgunenne, án hverrar eingenn kann Drottinn at sjá.

15. Siáed og svo til, at eingenn forsóme Guds nád, svo at eingen beiskerót nockurstadar uppsprette, og ófrid gere, og at marger fyrer þá kunnu saurgader verde.

16. At þar se eingenn frillulífis madur, edur ógudlegur sem Esau, sá sem fyrer matar saker, sellde sína frumgetning.

17. Og vited, at hann þar efterá, þá hann blessunena erfa villde, er hann útskúfadur, þvíat hann fann eige rúm idrunar, þótt hann hennar med grátande tárum leitade.

18. Þvíat þer erud eige gengner til þess fialls, sem þreifanlegt er, og med ellde brennur, ne til þóku eda myrkurs, eda óvedurs.

19. Og eige til lúdrahlióms, eda til raddar ordanna, hverra þeir óttudust, sem hana heyrdu, at eige yrde til þeirra orded talad.

20. Þvíat þeir kunnu eige þad at standast, hvad þar var sagt. Og ef og svo nockot dyr snart fiallid, þá skyllde þad steinum grytast, eda med skeite i gegnskoted verda.

21. Og svo ógurleg var sú sýn, at Moyses sagde: eg em ótteslegenn og skelfdur.

22. Helldur erud þer komner til Fiallsins Zion, og til borgar Guds lifanda, til himneskrar Jerusalem, og til margfallda margra þúsund engla.

23. Og til samkundu þeirra frumgetnu, hverer á himnum uppskrifader eru, og til Guds allra dómara, og til anda algerfelegra rettlátra.

24. Og til medalgángara hins nya testamentis Jesu, og til yferdreypingar blóds, þad betur talar enn Abels blód.

25. Siáed til, at þer amest eigi vid þeim sem vid ydur talar. Þvi ef hiner eru eige umflyder, sem móstódu, þá hann á jørdu talade, miklu mider þá ver, ef ver móstendum þeim, sem af himnum talar.

26. Hvers rødd þann tíma jørdena bifade, enn nu fyrer heitet hann og seger: enn einu sinne mun eg hræra eigi alleinasta jørdena, helldur einnenn himenenn.

27. Enn svodden, enn eitt sinn, merker, at þad hid hræranlega, skal umskiftelegt verda lijka sem annad smíde, svo at þad, hvad óhræranlegt er, stødugt blífe.

28. Hvar fyrer, med því ver medtøkum þá óhræranlegt ríke, þá høfum ver nádena, fyrer hvers

vier skulum Gude þióna, honum til þæcknunar, med siðseme og hrædslu, þviat vor Gud er eydande elldur.

## 13. Capitule.

1. Vered stadføger í broodurlegum kierleika.

2. Gestrisne forgleymed eige, þviat fyrer hana hafa nockrer, þeim óvitande, englunum herberge veitt.

3. Minnest bandingianna, lika sem adrer sambandingar, og þeirra sem mótgánga líða, svo sem þer enn nú lifed í líkamanum.

4. Hiúskaparenn skal heidarlegur halldenn, vera hiá øllum, og hiónabands sængen óflekkud. Enn frillulífis menn og hórkarla man Gud dæma.

5. Ydart framferde sie án ágyrne; og láted ydur þad nægia, sem í nánd er, þviat hann hefir sagt: eg vil eige yfergefa þig nie forsóma.

6. Svo at ver dyrfumst at segia: Drottinn er minn hiálpare, eg vil eige óttast, hvad skyllde nockur madur mer gera;

7. Minnest á ydra lærefedur, þeir Guds ord hafa sagt ydur, hverra æfelokum þá athugged, og eftersylged þeirra trú.

8. Jesus Christus er í gær og í dag, og einenn hinn same at eylífu. Láted eige umhvirfla ydur med margvíslegum og framande lærdómum.

9. Þviat þad er ágætlegur hlutur at hiartad er stadfast, hvad skiedur fyrer nádena, eige fyrer fædslunna, hvar af þeir enga nytsemd hafa, sem þar med umgángast.

10. Ver hófum eitt alltare, hvar af þeir sem tialldbúdenne þióna hafa eige valld til at eta.

11. Því hverra dyra blód, sem innbered verdur af ædsta kennemanne, í hid heilaga, fyrer syndernar, þeirra skrokkar verda uppbrennd utann herbúdanna.

12. Fyrer því hefir einnenn Jesus, at hann helgade fólked fyrer sitt eged blód, utann borgarhlidsins lided.

13. Því látum oss útgánga til hans út yfer herbúdernar, og bera hans vanvirding.

14. Þviat ver hófum hier eingann blífanlegann samastad, helldur leitum ver hins tilkomanda.

15. Því látum oss nu offra fyrer hann lofgiørdaroffre Gude alla tíma, þad er ávøxt varanna, sem vidurkenna hans nafn.

16. Gøra gott at gera, og med at skifta, þá forgleymed eige, þviat slík offur þóknast Gude vel.

17. Hlyded ydrum kennefedrum og fylged þeim, þviat þeir vaka yfer ydrum sálum, líka sem þeir reikningskap þar fyrer gera skulu, svo at þeir gøre þad med glede, enn eige med andvarpan, þviat þad er ydur eige gott.

18. Bidied fyrer oss. Vort traust er þad, at ver høfum góda samvitsku, og kostgiæfum góda umgengne at hafa hiá øllum.

19. Enn eg meir enn beide ydur þar um, þvílíkt at gera, at eg kæmest hid allra fyrsta aftur til ydar.

20. Enn Gud fridarens; sá sem út hefir leidt frá daudum hinn mikla hyrder sauddanna, fyrer blód þess eylífa testamentis, vorn Drottinn Jesum Christum.

21. Hann gøre ydur stødugа í

ollu gódu verke, til at gera hans vilia, og efle þad með ydur, hvad fyrer hønum þacknæmt er fyrer Jesum Christum, hverum se dyrd, frá eylifd til eylífdar, Amen.

22. Eg áminne, ydur, kærer brædur! halldeð mer þat áminningar ord til góda, hvad eg hefe stuttlega skrifad ydur.

23. Viteð þad, at sá bróder Timotheus er laus aftur, med hverium, ef hann skiótlega kemur, eg vil siá ydur.

24. Heilsed ollum ydrum lærurum, med ollum Heilogum. Ydur heilsa brædurner á Vallande.

25. Nádenn se med ydur ollum, Amen.

Skrifadur úr Vallande med Timotheo.

Endet Pistilsens til Ebræos.

# S. Jacobs Pistil.

## 1. Capitule.

1. Jacob Þiónn Guds og Drottins Jesu Christi. Þeim tólf kinkvíslum, sem sundur dreifdar eru her og þar, segest kærleg heilsun.

2. Brædur míner elskuleger! reikned þad fyrer allann fognud, nær þer í margvísslegar freistingar falleð.

3. Og viteð, at reinsla ydrar trúar verkar þolennmæde.

4. Enn þolennmæden mun stadfost blifa allt til enda, svo at þer send fullkomner, og algerder, og í engu brest hafeð.

5. Og ef einhveru ydar vantar vísdóm, hann bidi af Gude, sá einfalldlega gefur hverium manne, og bregdur þar engum um, svo mun hønum hann gefast.

6. Enn hann bidi í trúnne, og efe eige, þvíat sá sem efablandenn er, hann er líka sem siáfarbylga, sú af vinde verdur drifen og uppæst.

7. Því íkur madur þeinke eigi at hann mune af Drottne nockud odlast.

8. Efablandenn madur er óstodugur á ollum sínum vegum.

9. Enn sá bróder sem lítelækadur er, hann hrósi ser i sinne upphafningu.

10. Og hann sem ríkur er, hann hrósi ser í sinne lítellæginga, því líka sem blómstur grassens mun hann forgánga.

11. Þá solen uppgengur med hita, þá skrælest grasid, og blómstred fellur, og þess fagra álit fordiarfast; líka svo mun sá rike á sinum vegum uppþorna.

12. Sæll er sá madur, sem freistingu lídur, því efter þad hann er reyndur, mun hann odlast lífsins koronu, hvera Gud hefir fyrerheited þeim, sem hann elska.

13. Eingenn sege, nær hann freistast, at hann af Gude freistadur verde, þvíat Gud er eingenn freistare til hins vonda, og einskis freistar hann.

14. Helldur freistast hver einn,

nær hann tilteygtest af sinne egen Girnd, og lockadur verdur.

15. Og sídan girnden hefir getid, fæder hún syndena, enn nær Synden er fullkomnud, fæder hún daudann.

16. Villest eige, kærer brædur.

17. Øll góð giøf, og øll fullkomen giøf, kemur at ofan frá fød ur liósens, hiá hverium eingen umskifting er, ne byting liósens og myrkursins.

18. Hann hefir oss fædt efter sinne viliu, fyrer sannleiksins ord, at ver seum frumburder hans skepnu.

19. Fyrer því, kærer brædur, se hver madur fliótur at heyra, enn tregur at tala, og til reide tregur.

20. Þvíat mannsins reide gerer þad eige, hvad fyrer Gude rettferdugt se.

21. Þar fyrer aflegged allann óhreinleik og illsku, og medtaked ordid med hógværd, þad í ydur er gródursett, hvad ydrar sáler kann hiálplegar at gera.

22. Vered og einneun gerendur ordsins, enn eige alleinasta tilheyrendur, hvar þer siálfa ydur med á tálgr draged.

23. Því ef einhver er ordsins tilheyrare og eige þess gerare, sá er líkur þeim manne, sem sína líkamlega ásiónu í skuggsiá skodar.

24. Því efter þad hann hefir skodad sig, iafnskiótt gengur hann burt þadan, og gleymer hvernen hans yferlitur var.

25. Enn hver gegnumskodar hid algerda logmál frelsesins, og stadnæmest þar í, og er eige gleyminn heyrare, helldur gerer þar efter, sá same mun hólpinn verda, í sínu verke.

26. Enn ef einhver medal ydar lætur ser þykia, at hann þióne Gude, og temur eige sína túngu, helldur forviller sitt hiarta, þess Gudsþiónusta er hegómleg.

27. Ein skær og ósleckud Guds þiónusta fyrer Gude fødur, er at vitia fødurlausra og eckna, í þeirra hormungum, og sig óslecksdann frá heimenum at vardveita.

## 2. Capitule.

1. Kærer brædur, þer skulud eige meina, at trú á Jesum Christum vorn Drottinn dyrdarfulla, líde manngreinar álit.

2. Því, ef í ydra samkundu inngengur madur, berande gullbaug, og kostuleg klæde, enn þar kæme og einneun einn fátækur í óhreinum klædum.

3. Og þer sæud á þann, sem kostulegann klædnad ber, og segdud til hans: sit þú her í gódum sesse; og til hins fátæka segdud þer: statt þú þarna, eda set þig her hiá fótum mínum.

4. Gered þer þá eige greinarmun med siálfum ydur, og verded dómarar, í því þer gered vondann greinarmun.

5. Heyred til brædur míner elskuleger, hefir Gud eige útvaled fátæka þessarar veralldar, þá í trúnne ríker eru, og erfingiar þess ríkes, hvert hann hefir heited þeim sem hann elska?

6. Enn þer hafed vanheidrad hina fátæku. Eru hiner ríku eige þeir, sem med yfergánge nidur þrickia ydur, og þeir sem framdraga ydur fyrer dóm?

7. Hæda þeir eige þad hid góda nafn, efter hveru þer erud kalladir?

8. Og ef þer fullkomned þad konunglega logmál efter ritningunum, þad: elska þu náunga þinn

sem sjálfann þig, þá gered þer vel.

9. Enn ef þer hafed manngreinar álit, þá drýged þer synd, og verded ávítader af løgmálenu, svo sem yfertrodslumenn.

10. Því þó at einhver hellde allt løgmáled, og brotlegur yrde í einu, þá er hann þegar alls þess sekur.

11. Því hann sem sagt hefir: eige skalltu hór drýgia; sá hefir einnenn sagt: eige skalltu ihelslá. Þótt þu drýgér nú eige hór, enn ihelslær, þá ertu þó yfertrodslumadur løgmálsins.

12. Líka svo taled, og svo gered, sem þeir, hverer fyrer løgmál frelsesins dæmder verda.

13. Enn þar mun ómiskunsamur dómur yfer þann gánga, sem enga miskunsemi hefir gerda, og miskunnen hún hrósar sér móte dóminum.

14. Hvad stodar þad, kærer brædur, þóat einhver sege, hann hafe trúna, og hefir eige verken? getur trúen gert hann hólpenn?

15. Enn ef nockur bróder eda syster være nøken, og þarf hefde daglegrar næringar:

16. Og einhver ydar segde til þeirra: fared í fride; gered ydur varm, og metted ydur, enn gæfe þeim eige, hvad þeirra líkama nauðþurft er, hvad hiálpar þeim þad?

17. Svo og líka trúen, nær hún hefir eingen verk, þá er hún daud í sialfre ser.

18. Enn þar mætte einhver segia: þú hefir trúna, og eg hefe verken, sýn þú mer trú þína af verkum þínum, og mun eg sýna þer mína trú af mínum verkum.

19. Þú trúer, at þar se einungis einn Gud; þad gerer þú vel, diøflarner trúa því einnen, og eru skelfder.

20. Enn villtu vita, þú hegómamadur, at trúen án verka se daud?

21. Er eige Abraham fader vor, af verkum rettlátur ordenn, þá hann offrade syne sínum Isaac á alltarenu.

22. Þar ser þú, at trúen hefir samverkad hans gerdum, fyrer verken er trúen fullkomleg ordenn.

23. Og ritningen er uppfylld, sem seger: Abraham trúde Gude, og þad er honum taled til retlætis, og er Guds vinur kalladur.

24. Svo siaed þer nú, at madurenn verdur fyrer verken rettlátur, og eige alleinasta fyrer trúna.

25. Svo og einnen portkonan Rahab; er hún eige af verkum rettlát vorden, þá hún medtók sendebodana, og let þá um annann veg út fara?

26. Því líka sem líkamenn er án andans daudur, svo er og einnen trú án verkanna daud.

## 3. Capitule.

1. Kappkosted eige brædur míner, svo marger þer erud, lærimeistarar at vera, og vited, at ver munum þess meire dóm fá.

2. Því aller ver briótum margfalldlega. Enn hver hann verdur eigi brotlegur í nockru orde, sá er algerdur madur, og kann einnen øllum líkamanum í taume at hallda.

4. Siáed, at ver holldum hestum í taume, svo at þeir hlyde oss, og stiórnum øllum þeirra líkama.

4 Siáed skipen; þó at þau sem stór, og verde af megnum vinde reken, þá verdur þeim þó stiórnad af litlu stýre, hvert sá vill, sem stýrer.

5. Svo er og einnen túngan lítell limur, og af stad kemur þó stórum hlutum. Siáed einn lítenn elld, hversu mikenn skóg kann hann upp at brenna?

6. Túngan er einnen elldur, verölld full rángletis, svo er túngan medal varra lima, og fleckar allann líkamann, og uppkveiker alla vora umgengne, nær hún af helvíte upptendrud er.

7. Þvíat allar nátturur dyra og fugla og höggorma, og skrímsla verda tamdar og eru tamdar af manlegre náttúru.

8 Enn túnguna getur eingenn manna tamed, hid óspakláta íllt, fullt daudlegs eiturs.

9. Med henne dyrdkum vér Gud födur, og med henne forbrælum vér mönnunum efter Guds mind gerdum.

10. Af hinum sama munne framgenåur blessan og bölvan. Þat skal eigi so vera, kærer brædur.

11. Utveller nockud brunnurenn af sömre augu, sætt og beiskt?

12. Getur nockud kærer brædur! eitt fíkiutré bored vidsmiors ávöxt, eda víuvidur fíkur? Líka svo kann eigi hinn same brunnur salt vatn og sætt at gefa.

13. Hver sem er vitur og forsókt ur á medal ydar? Hann audsyne med gódre umgengne sín verk, í hógværd og hygginndum.

14. Enn ef þer hafed beiskt hatur og þrætan í ydrum hiörtum, svo hrósed ydur eigi, og lúged eigi geán sannleikanum.

15. Því þat er eigi sú viska, sem at ofan kemur, helldur jardleg, líkamleg og diöfulleg.

16. Því hvar hatur og þrættan er, þar er vanskickan, og aller illir hlutir.

17. Enn sú viska sem at ofan kemur, er fyrst hreinlíf, þar næst fridsöm, hoglát, lætur sér seigast, full miskunsemda, og gódz ávaxtar, og ságreiningarlaus, án sinladrás.

18. Enn rettlætisins ávöxtur verdur þeim í fride sádur, sem fridenn halda.

## 4. Capitule.

1. Hvadan koma stríd og bardagar medal ydar? Koma þær eigi af ydrum vellystingum, sem strída í ydrum limum?

2. Þer erud ágiarner, og ödlest þat med ecki; þer hated og öfundid, og vinned þat med ecki; þer sláed og stríded, og hafed ecki, því þer bided eigi.

3. Þer bided og ödlest ecki, af því þer bided vondslega, sem er þat til, og féed þvi í ydra bílífe.

4 Þer hórunarmenn og hórdómskonur, vited þer eigi, at veralldarennar vinsemd er Guds óvinskapur? Hver veralldar vinur vill vera, sá mun Guds óvinur verda.

5 Eda meined þer at riteningen segi til einskis: Sá andi sem bygger i ydur, setur sig mót afundenne.

6. Og gefur nádena ríkuglega? Þar fyrer segir hann: Gud mótstendur dramblátum, enn lítelláatum gefur hann nád.

7. Því verid Gude undergefner, standed á móte Diöflenum, svo flyr hann frá ydur.

8. Nálæged ydur at do Gude, svo nálæger hann sig ydur. Hreinsed ydar hendur, þer syndarar; og hreinsed hiörtun, þer efasamer.

9. Berid ...ásigkomulag, ... og

barmed: ydar hlátur skal umsnúast í grát, og ydar glede í hriggd.

10. Lækked ydur fyrer Gude, þá mun hann upphefia ydur.

11 Bakmæled eigi hver ødrum, kærer brædur, þvi hver hann bakmæler bródur sinum, og dæmer um sinn bródur, sá bakmæler lögmálenu, og dæmer um lögmáled. Enn dæmer þú um lögmáled, þá ertþú eigi gerningsmadur lögmálsins, helldur dómare.

12 Því einungis einn er sá lögmálsins giafare, sem frelsa kann, og fordæma, enn hver ert þú sem annann dæmer?

13. Nú vel, þer sem nú seged: J dag ellegar á morgun vilum ver gánga í þessa edur þá borg, og vilum þar eitt ár dveliast, og kaupskap fremia, og ávinning gera.

14. Þer sem þó eigi vited, hvad á morgun ske mun. Því hvad er ydart líf? Gufa er þat, sem litla stund varer, enn sídan hiadnar hún.

15. J stad hvers þer skylldud segia: Vile Drottinn, og ef ver lifum, þá vilum ver þetta edur þat gera.

16. Enn nú hrósed þer ydur í ydvare drambseme. Øll svoddann hrósan er vond.

17. Þvíat hann, sem kann nockud godt at gera, og gerer þat eigi, þeim er þat synd.

## 5. Capitule.

1. Nú vel, þer andriger, hlæd og æped, yfer ydare vesøld, sem yfer ydur skal koma.

2 Ydare ríkedæme er aldvad, og klæde ydar eru møleten.

3. Gull ydart og silfur er forridgad, og þeirra rid mun ydur til vitnisburdar vera, og mun æta ydru holde sem elldur. Þer hafed ydur fiesdum safnad á sidurstum døgum.

4. Siáed, at laun verkmannanna, þeirra sem ydar akurlond hafa uppyrkt, og vered hafa af ydur fane hallden, þau hrópa, og kaupstyrkaranna hróp er komed til eyrna Drottins Zebaoth.

5. Þer hafed kræselega lifad á jørdu, og ydrat vellystingar drygt, og kappaled ydar hiørtu, svo sem til slátrunardags.

6. Hinn rettláta hafed þer dæmt, og shelsleged, og hann hefir eigi mótstaded ydur.

7. Fyrer því vered þolennmóder, kærer brædur, allt til tilkomu Drottins. Siáed, at akurkarlenn vænter ágiætilegs ávaxtar jardarennar, þat þolennmódlega umlídande, þat til hann fær morgunregn og kvølldskúra.

8. Vered þer einnenn þolennmóder, og styrked ydar hiørtu, þvíat tilkoma Drottins er í nánd.

9. Andvarped eigi hver móte ødrum, kærer brædur, svo at þer fordæmest eigi. Siáed, at dómarenn er fyrer dyrum.

10. Taked, míner kærer brædur, til efterdæmis, spámannanna svaler, og þolennmæde, þeir til ydar hafa talad í nafne Drottins.

11. Siáed, ver prísum þá sæla at vera, sem þolennmóder eru. Þolennmæde Jobs hafed þer heyrt, og þer hafed sed hvern enda Drottenn á því gert hefir, þvíat Drottinn er misskunsamur og líknare.

12. Enn framm um alla hlute, brædur míner, þá svered hvørki vid himen, ne vid jørd, ne necke.

urn annann eid. Enn ydar ord seu, já, Þat já er, og nei, Þat nei er, svo at Þer falled eigi í hræsne.

13. Líde nockur á medal ydar, sá bide. Er nockurs glódu gede, sá synge psalma.

14. Enn se nockur siúkur, sá kalle til sín olldunga safnadarens, og láte bidia yfer ser, og sig vidsmyre smyrla, í nafne Drottins.

15. Og bæn trúarennar mun frelsa hinn siúka, og Drottinn mun vidreisa hann, og Þó hann hafe synder gert, munu Þær honum fyrergefast.

16. Játe hver ødrum sínar synder, og bided hver fyrer ødrum, at Þer heilbrigder verdid. Þvi Þess rettferduga bæn má miked, Þá hún er alvarleg.

17. Elias var madur líka svo sem ver erum, og hann bad bænar, at Þad skyllde eigi rigna, og Þad rignde eigi yfer iørdena í Þriú ár og sex mánude.

18. Og annad sinn bad hann aftur og himenenn gaf regn, og iørden bar sinn ávøxt:

19. Kærer brædur, ef nockur medal ydar villest frá sannleikanum, og umsnyr hønum einnhver.

20. Sá skal vita Þad, at hver syndarannn umsnyr frá villu hans vegar, hann hefir frelsad eina ánnd frá dauda, og mun byrga fiølda syndanna.

Ender S. Jacobs Pistils.

# S. Judæ Pistill.

## 1. Capitule.

1. Judas, Þiánn Jesu Christi, enn bróder Jacobi. Þeim kølludum, sem heilager eru í Gude fødur, og vardveitter i Jesu Christo.

2. Gud gefe ydur mikla miskun, frid og kærleika.

3. Míner kærustu! med Þvi eg hafde áset mer at rita ydur um vora sameginlega sáluhiálp, virdtest mer naudsynlegt, med skrife at áminna ydur, at Þer fyrer Þá trú strided, sem hinum Heiløgu er eitt sinn gefen.

4. Þvíat Þar eru nockorer menn, Þeir iafnframt inn hafa lædst, útaf hverium fordum tíd skrifad er, til svoddan strassunar, Þeir eru ógudleger, og draga nád Guds vors uppá Þverlynde, og afneita Þeim eina Gude, og Drottne Jesu Christo.

5. Enn eg vil áminna ydur, at Þer eitt sinn vited, at Drottinn, Þá hann frelsade fólked af Egyptalande, at í annad sinn glatade hann Þeim sem eige trúdu.

6. Líka einnenn englana, (hverer eige geymdu Þeirra høfdingiadóm, helldur forletu sitt heimele), hefir hann vardveitt til dóms Þess hins mikla dags, med æfenulegum bøndum í myrkrenu.

7. Svo sem einnenn Sódóma og Gómorra, og umliggande borger, hverar med sama hætte og Þær, hórad høfdu, og efter ødru holdde gengnar voru, eru settar til efterdæmis, og Þola kvøl eylífs elds.

8. Slíkt hid sama eru einnenn

Þesser dreymarar, hvörer holldeð saurga, enn herrastiettena forsmá, og tignenne bolva.

9. Enn Michael sá höfudengell, þá hann vid dioffulenn þrátrade, og vid hann talade um líkama Moysis, dyrfdest hann eige dóms atkvæde hádungarennar á at fella, helldur sagde hann: Drottinn straffe þig.

10. Enn þesser lasta þad, þar þeir ecke af vitu, enn hvad þeir af náttúrunne vita, þar i fordiarfast þeir svo sem skinlaus dyr.

11. Ve þeim, þvíat þeir gánga veg Cains, og fasta í villudómi Balaams, fyrer ávinnings saker, og fyrerfarast í mótglan Chore.

12. Þessar óþeckter bramla klyggdunarlaust af ydare ölmusu, fœdande sig siálfa án ótta. Þeir eru vatnslaus sky, sem af vinde verda drifen, þeir eru ber, ófriófsöm tre, tvisvar daud, og upprætt.

13. Grimmar siáfarbylgiur, útlöörande sinar eigenlegar skammer, villar stiörnur, hverium vardveitt er þoka myrkranna at eylífu.

14. Enn Enoch hinn siöunde frá Adam, hefir einnen af slíkum spád, og sagt: siáed! Drottinn kemur med mörgum þúsundum Heilagra.

15. Dóm at hallda yfer öllum, og at straffa alla þá sem ógudleger eru af þeim, fyrer allar gerder þeirra ógudlegrar umgengne, hvar med þeir ógudleger voru, og fyrer allt þad harda, sem ógudleger syndarar hafa á móte honum talad.

16. Þeir eru möglendur, og jafnan ánöglusamer, þeir efter sínum gyrndum gánga, og þeirra munnur talar hroka yrde, og þeir akta manngreinar álit, fyrer gagnsemdar saker.

17. Enn þer, míner elskuleger, vered minnuger þeirra orda, sem ádur fyrre sögd hafa verid af postulum Drottins vors Jesu Christi.

18. Þad þeir sögdu ydur, at á sídustum tímum munu spottarar vera, hvörer gánga efter egen gyrndum síns ógudlegs lífernis.

19. Þesser eru þeir, hverer tvídrægne gera, hverer líkamleger eru, þeir engann anda hafa.

20. Enn þer, míner ástsamleger, uppbygged ydur, í ydre allraheilögustu trú, fyrer Heilagann anda, og bided.

21. Og vardveited ydur í Guds kærleika, og vænted miskunnar Drottins vors Jesu Christi, til eylífs lífs.

22. Og hallded þennann mismun, at þer aumked ydur yfer nockra.

23. Og nockra med hrædslu hólpna gered, og rífed þeim úr bálenu, og at hatre hafed þann flekkada holldsins kyrtil.

24. Enn þeim, sem ydur kann at vardveita utan vansa, og at stilla fyrer auglite sinnar dyrdar, óstraffanlega medur fögnude.

25. Þeim Gude, sem alleina er vitur, vorum lausnara, se dyrd og majestæt, og styrkur, og magt, nú og til allrar eylífdar, Amen.

Ender S. Judæ Pistils.

# Openberan Postulans S. Johannis.

## 1. Capitule.

1. Þesse er openberan Jesu
Christi, hvera Gud gaf honum, til
at kunngera sínum þiónum, hvad
ske skal innann skams, og hann
útþydde hana, og sende hana fyrer
sinn engel, til síns þenara Johan-
nes.
2. Hver vitnad hefir Guds ord,
og vitnisburdenn af Jesu Christo,
hvad hellst hann hefir sed.
3. Sæll er sá sem les, og þeir
sem heyra ord spádómsins, og
vardveita hvad þar inne skrifad
er, því tímenn er nálægur.
4. Johannes, þeim sjø samkund-
um sem í Asia eru. Nád se med
ydur og fridur, af þeim sem er, og
þeim sem var, og þeim sem kemur,
og af þeim sjø öndunum, sem eru
fyrer hans stóle.
5. Og af Jesu Christo, sá sem
er trúr vottur, og frumgetningur
framliðenna, og höfdinge iardar-
innar konunga. Hver oss hefir
elskad, og þveged af syndum í sínu
blóde.
6. Og hefir gert oss til konunga
og kennemanna, fyrer Gude og
sínum fødur. Þeim hinum sama
se dyrd og valld, frá eylífd til ey-
lífdar, Amen.
7. Siáed: hann kemur í skyum,
og øll augu munu hann siá, og þeir
hann í gegnum stúnged hafa, og
allar kinkvísler iardar munu kveina,
iá, sannlega.
8. Eg em á og ó, upphaf og
ender, seger Drottinn, sá sem er,
og sá sem var, og sá sem koma
mun, hinn almáttuge.
9. Eg Johannes, sem og svo er
ydar bróder, og hluttakare í hörm-
ung, og ríke, og þolinmæde Jesu
Christi, var í eyunne, sem kallast
Pathmos, fyrer Guds ords saker,
og vitnisburdar Jesu Christi
10. Eg var í anda á Drottins
dege, og heyrde á bak mier rauft
mikla sem einnrar básúnu.
11. Hún sagde; eg em á og ó,
hinn fyrste og sídarstur. Og hvad þú
sier, þad skrifa í eina bók, og send
þad til samkundanna í Asia, til
Ephesum, og til Smyrna, til Perg-
amus, og til Thyatiras til Sardes,
og til Philadelphiam, og til Laodi-
ceam.
12. Og eg snere mer vid, at
siá efter þeirre raust, sem vid mig
talade. Og sem eg snere mer vid,
sá eg sjau ljósastikur gullegar.
13. Og midt í mille þeirra sjau
liósastiaka, einn sem líkur var ein-
um mannsins syne, sá var klæddur
sídum kyrtle ofann at fótum, og
spenntur um bryngiuna gullegu
belte.
14. Enn hans höfud og hár voru
hvít sem hvít ull, líka sem snjór,
og hans augu sem elds loge.
15. Og hans fætur sem þad
látúnn, hvert glóar í ofne, og hans
rødd sem mikell vatna niđur.
16. Og hann hafde sjø stiørn-
ur í sinne hægre hende, og út af
hans munne gieck hvasst tvíeggiad
sverd, og hans andlit skein sem hin
klára sól.
17. Og sem eg sá hann, fell eg
nidur fyrer hans fætur svo sem
daudur. Og hann lagde sína hægre
hønd yfer mig, og sagde til mín:
hrædstu eige, eg em sá fyrste og
sídarste.

18. Og sá lifande; eg var dauður, og siá, at eg em lifande frá eylífd til eylífdar, amen, og eg hefe lykla helvítis og dandans.

19. Skrifa hvad þú sed hefir, og hvad sem er, og hvad her eftir ske skal.

20. Leyndanndóm þeirra siau stiarna, sem þú hefir sed í minne hægre hende, og þær siau gullegar liósastikur. Þessar siau stiornur, eru englar siau samkunda, og þær siau liósastikur, sem þú hefir sed, eru samkundur.

## 2. Capitule.

1. Og englenum samkundunnar í Epheso skrifa þú: Þetta seger sá sem helldur þeim siau stiornum í sinne hægre hende, sá sem gengur midt á mille þeirra siau gullegra liósastikna.

2. Eg veit þín verk, og þitt erfide, og þína þolenmæde, og at þú kannt eige hina vondu at umlída, og freistader þeirra sem sig segia postula vera, og eru þó eige, og þú fannst þá lingara.

3. Og leidst, og þolenmæde hefir, og þú erfidader fyrer míns nafns saker, og þreyttest eige.

4. Enn þad hefe eg á móte þer, at þú hinn fyrsta kærleik yfergafst.

5. Minnstþú á hvar frá þú ert fallenn, og ger idran, og ger hin fyrre verken. Enn ef eigi; mun eg til þín snarlega koma, og þinne liósastiku burt hrinda úr sínum stad, ef þú eige gerer idran.

6. Enn þad hefir þú, at þú hat ar verk þeirra Nicolaitarum, hver eg einnen hata.

7. Hver eyru hefir, hann heyre, hvad andenn seger samkundunum. Hver hann yfervinnur, þeim mun eg gefa at eta af lífs treinú, þad midt í Guds Paradis er.

8. Og þeim engle samkundunnar i Smyrna skrifa þú: Þetta seger hinn fyrste og sídarste, sá daudur var, og hver lifande er ordenn.

9. Eg veit þín verk, og þína hormung og fátækt, enn þú ert audugur, og lastan þeirra sem segia sig Gydinga vera, og eru þó eige, helldur eru þeir satans sýnagógur.

10. Hrædstþú eige, af því sem þú lída munt. Siá, diofullenn mun nockrum af ydur kasta í dyblyssu, at þer freistader verded, og þer munud hormung hafa í tín daga. Vertþú trúr allt til daudans, so mun eg gefa þer korónu lífsins.

11. Hver eyru hefir, sá heyre hvad anden seger samkundunum. Hver hellst yfervinnur, þeim skal ecke illt ske af þeim odrum dauda.

12. Og þeim engle samkundunnar í Pergamo skrifa þú: Þetta seger sá sem hefir hid hvassa tvíeggiada sverd.

13. Eg veit hvad þú gerer, og hvar þú byr, hvar andskotans sæte er, og þú helldur vid mitt nafn, og hafneitader eige mína trú. Einnenn á þeim dogum þá Antipas minn trúr vottur var hiá ydur skelsigeun, hvar satan bygger.

14. Enn eg hefe lítenn hlut á móte þer, at þú hefir þá þar, sem vid lærdóm Balams hallda, sá sem kennde fyrer Balac, upp at setia hneixle fyrer Israels born, til at eta af því sem skurgodum offradest; og hór at drygia.

15. Líka svo einnen hefir þú þá, sem hallda kenningar Nicolaitarum, hvad eg hata.

16. Ger iðrbót; enn ef eige, þá mun eg snarlega koma til þín,

og strida vid þá med sverde mins munns.

17. Hver eyru hefir sá heyre hvad andenn seger samkundunum. Hver hann yfervinnur, þeim vil eg gefa at eta af því fólgnu manna, og eg vil gefa hønum gódann vitnisburd, og med vitnisburdenum nytt nafn skrifad, þad eingenn þecker, útann sá þad medtekur.

18. Og þeim engle samkundunnar í Thyatíra skrifa þú: Þetta seger sonur Guds, sá augu hefir sem eldsloga, og hans fætur sem látún.

19. Eg veit þín verk, og þinn kærleika, og þína þiónustu og trú, og þína þolenmæde, og þín hin sídare verk, hinum fyrrum meire.

20. Enn fátt eitt hefi eg á móte þer, at þú lætur þá kvinnu Jesabel, sem seger sig spákonu vera, kenna og villa mína þióna, hóraner at drygia, og skúrgoda fórner at eta.

21. Og eg hefe henne tíma gefed, at hún skyllde idran gera, fyrer hennar hóraner, og hún gerer eige idran.

22. Siá, eg kasta henne í reckia, og þeim, hverer med henne hór dryget hafa, í stórar hørmungar, nema þeir gere yferbót fyrer sín verk.

23. Og þeirra børn vil eg deyda Og allar samkundur skulu vidurkenna, at eg em nyrnanna og hiartanna rannsakare, og eg mun gefa hverum ydar sem einum, efter ydrum verkum.

24. Enn ydur sege eg, og hinum ødrum sem eru til Thyatira, þeir þennann lærdóm eigi hafa, og hverer eige þeckt hafa dypt Andskotans (sem ad þeir segia), eige vil eg annann þúnga á ydur kasta.

25. Þó, hvad þer hafed, þad halldeð, þar til eg kem.

26. Og hver sem yfervinnur og vardveiter mín verk, allt til enda, þeim mun eg valld gefa yfer hina heidnu.

27. Og hann skal stiórna þeim med iárnvende, og svo sem leirsmidsens ker, skal hann sundur mola þá.

28. Líka sem eg af mínum fødur medteked hefe, og morgunstiørnuna mun eg gefa hønum.

29. Hver eyru hefir, sá heyre, hvad andenn seger samkundunum.

## 3. Capitule.

1. Og þeim engle samkundunnar í Sardeu, skrifa þú: Þetta seger sá sem hefir siau anda Guds, og stiørnur siau. Eg veit þín verk, þviat þú hefir þad nafn, at þú lifer, og ert daudur.

2. Vert þú vakande, og styrk hid annad hvad deya vill, því þín verk hefe eg eige fullkomen funded fyrer Gude.

3. Því legg nú í minne, hvernen þú hefir medteked og heyrt, og vardveit þad, og ger idran. Því ef þú eige vaker, þá mun eg yfer þig koma sem þiófur, og eige munt þú vita á hverre stundu eg mun koma yfer þig.

4. Þú hefir og svo fáein nøfn í Sardeu sem eige hafa saurgad sín klæde, og þeir munu med mer gánga í hvítum klædum, þvíat þeir eru þess verder.

5. Hver yfervinnur, sá skal med hvítum klædum klæddur verda, og eige mun eg hans nafn útsletta af lífsins bók, og eg mun iáta hans nafn fyrer mínum fødur, og fyrer hans englum.

6. Hver eyru hefir, sá heyre hvad andenn seger samkundunum.

7. Og þeim engle samkundunnar i Philadelphia skrifa þú: þetta seger hinn heilage og sanne, sá sem hefir lykel Davids, hver upp lætur, og engenn aftur lykur; hver aftur lykur, og engenn upp lætur.

8. Eg veit þín verk, siá, eg let fyrer þer opnar dyr, og eingenn fær þær aftur láted, þviat þu hefir einn litenn kraft, og hefir vardveitt mín ord, og hefir eige minu nafne afneitad.

9. Siá, eg mun gefa af satans safnade, þá sem sega sig Gydinga vera, og eru eigi, helldur liúga. Siá, eg mun þeim gera, at þeir skulu koma, og tilbidia fyrer þínum fótum, og vidurkenna, at eg hefe þig elskad.

10. Med hvi þú hefir vardveitt ord minnar þolenmæde, mun eg einnenn vardveita þig á freistingartímanum, sem koma mun yfer allt iardrike, til at freista þá þeirra, sem á iardu bygga.

11. Siá, eg kem snarlega, halltu hvad þú hefir, svo at eingenn take þína kórónu.

12. Hver yfervinnur, hann mun eg gera at stolpa í musterе Guds míns, og hann skal eige meir útganga, og á hannum vil eg skrifa nafn Guds míns, og nafn hinnar nyu Jerusalem, sem er borg míns Guds, sú af himnum ofann kemur frá mínum Gude, og mitt hid nya nafn.

13. Hver eyru hefir, hann heyre hvad andenn seger samkundunum.

14. Og þeim engle samkundunnar til Laodicea skrifa þú: þetta seger amen, trúr og sannarlegur vottur, hver upphaf er Guds skopunar.

15. Eg veit þín verk at þú ert hverke kalldur ne heitur, eg vil þú værer annadhvert heitur eda kalldur.

16. Enn med því þú ert volgur, og hverke kalldur ne heitur, mun eg útskirpa þer af mínum munne.

17. Þú seger: eg em rikur, og hefe allsnægtir nóg, og þarf einskis, og þú veitst eige, at þú ert vesæll, aumur og voladur, blindur og fatlaus.

18. Eg ræd þer, at þu kaupér gull at mer, þad í elde er hreinsad, svo þú audugur verder, og hvít klæde, hverum þú klædest, svo at eige auglýsest vanvirding þins fatlensis; og smyr þin augu med augnasmyrslum, svo at þú siáer.

19. Hvera eg elska, þá strafa eg og tyata, því ver þú nú kostgæfur, og ger idran.

20. Siá, eg stend fyrer dyrunum, og klappa á, ef nockur heyrer mína rødd, og upplýkur dyrunum, til hans mun eg inngánga, og kvølldverd med honum snæda, og hann med mer.

21 Hver yfervinnur, honum mun eg gefa med mer at sitia á mínum stóle, líka sem eg yferunned hefe, og sited med mínum fødur á hans stóle.

22. Hver eyru hefir, sá heyre hvad andenn seger samkundunum.

## 4. Capitule.

1. Efter þad sá eg, og siá, at dyr uppluktust á himne, og hin fyrsta rødd, hvera eg hafde heyrt vid mig tala, sem ádra básunu, hún sagde: Stíg upp hingat, eg vil syna þer, hvad her efter skal ske.

2. Og iafnsnart var eg í anda. Og siá, at stóll var settur á himnum, og á stólnum sat nockur,

3. Og sá sem þar sat, hann var lítur álits sem steinnenn Jaspis, og Sardis, og einn regnboge var kringum stólinn, líks álits sem smaragdus.

4. Og umhverfis stólinn voru fiórer og tuttugu stólar, og á þeim stólum sátu fiórer og tuttugu Aulldungar, skrýdder hvítum skrúda, og þeir báru á sínum høfdum gullegar kórónur.

5. Og af stólnum útgengu elldingar, reidarþrumur og radder. Og siau blis med ellde brunnu fyrer stólnum, hverer at eru siau andar Guds.

6. Og fyrer stólnum var glerstór, líka sem Crystallus. Og midt í stólnum, og kringum stólinn fiogur dyr, full augna á bake og fyrer.

7. Og hid fyrsta dyred var likt leone, og hid annad dyred likt kálfe, og hid þridia hafde ásiónu sem madur, og hid fiórda var likt fliúganda erne.

8. Og hvert þeirra fiogra dyranna, hafde sex vænge, allt umkring, og innann voru þau full augna, og høldu eige hvíld, dag og nótt segiande: Heilagur, Heilagur, Heilagur er Gud Drottinn almáttugur, sá sem var, og sá sem er, og sá sem koma mun.

9. Og þá dyren gáfu hønum dyrd og heidur, og þacker, þeim á stólnum sat, sá sem lifer frá eylífd til eylífdar.

10. Þá fellu framm þeir fiórer og tuttugu Aulldungar, fyrer þann sem á stólnum sat, og tilbádu þann, sem lifer frá eilífd til eylífdar. Og snaurudu sínum korónum framm fyrer stólenn og søgdu: Drottinn!

11. Þú ert verdugur at medtaka dyrd og heidur, og kraft; þvíat þú hefir alla hlute skapad, og fyrer þinn vilia urdu þeir, og eru skapader.

## 5. Capitule.

1. Og eg sá í hægre hende þess sem á stólnum sat, eina bók, skrifada innan og útan, insiglada med siau innsiglum.

2. Og eg sá sterkann engel predika med mikelle raust: hver er verdugur þessa bók upp at lúka, og hennar innsigle upp at brióta?

3. Og eingenn, hverke á himni um, ne á iørdu, ne under iørdu, kunne þá bók upp at lúka, ne þar í at siá.

4. Og eg æpte ógnrlega, at eingenn fannst þar verdugur þá bók upp et lúka, og at lesa, ne þar í at siá.

5. Og einn af aulldungunum seger til mín: grát eige, siá, at Leoned, sem er af ætt Juda, rót Davids, hefir yferunned, at þad opne bókena, og upp brióte hennar siau innsigle.

6. Og eg sá, og siá, í midiu stólsins og þeirra fiogra dyra, og midt á mille aulldunganna, þá stód eitt lamb, líka sem være þad slátrad, og hafde siau horn, og siau augu, hvered eru siau andar Guds, útsender um øll lønd.

7. Og þad kom og tók bókena úr hægre hende þess sem á stólnum sat.

8. Og þá þad tók bókena, þá fellu framm þau fiogur dyren, og fiórer og tuttugu aulldungar, fyrer lambenu, og hver einn hafde hørpu og gullker, full reykelsis, sem eru bæner heilagra.

9. Og súngu nyann loffsaung, og sögdu: þú ert verdugur at medtaka, og upp at brióta þennar innsigle, þvíat þú ert útradur, og þú endurleystir oss Gude med þínu blóde, af allz háttudum kynkvíslum, og túngum, og fólke, og heidingum.

10. Og þú hefir oss gert fyrer vorum Gude, til kongunga og kennemanna, og ver munum ríkia á jördu.

11. Og eg sá, og heyrde rödd margra engla, umhverfis stólinn, og um dyren, og umkring auldungana, og þeir voru at tölu tiu þúsund sinnum tíu þúsunder, og þúsundsinnum þúsunder,

12. Og sögdu med hárre raustu: verdugt er lambed, þad slátrad er, at medtaka kraft, og ríkdóm, og vitsku, og styrk, og æru, prís og lof.

13. Og allar skepnur, þær á himnum eru, og allt hvad í þeim er, heyrde eg sega til hans, sem á stólnum sat, og til lambsins: lof, heidur, prís, og valld, frá eylífd til eylífdar.

14. Og þau fiogur dyren sögdu amen. Og þeir fiórer og tuttugu auldungar fellu framm, og tilbádu þann, sem lifer frá eylífd til eylífdar.

## 6. Capitule.

1. Og eg sá þad, at lambed opnade eitt af insiglunum, og eg heyrde eitt af þeim fiórum dyrum sega, lika sem med reidarþrumu raust: kom og skoda.

2. Og eg sá, og siá þú, einn hvítann hest; og sá þar uppá sat, hafde boga, og hönum vard gefen kórona, og hann fór út at yfervinna, at hann ynne sigur.

3 Og þá þad opnade hid annad insigled, heyrda eg hid annad dyred sega: og gæt at.

4. Og þar geck út annar hestur, sá var raudur, og þeim sem þar sat á, vard gefed fridenn burt at taka af jördu, svo at þeir slátrudu hver ödrum, og hönum vard gefed stórt sverd.

5. Og þá þad opnade hid þrida innsigled, heyrde eg hid þrida dyred segia: kom, og skoda; og eg sá, og siá þú, einn svartann hest, og sá þar sat á, hafde met í sinne hende.

6 Og eg heyrde á medal þeirra fiogra dyra eina rödd sega: einn mæler hveitis fyrer einn pening, og þrir mælera byggs fyrer einn pening, og vidsmiore og víne gér engann skada.

7. Og þá þad opnade hid fiórda innsigled, heyrda eg rödd hins fiórda dyrsins, segande: kom og siá til.

8. Og eg sá, og sá, einn bleikann hest, og sá þar á sat, þess nafn het daude, og helvíte eftirfylgde hönum, og hönum vard magt gefen at deyda þann fiórda part á jördunne, med sverde, og og med húngre, og med dauda, og fyrer dyren á jördunne.

9. Og þá þad opnade hid fimta innsigled, leit eg under alltarenu sáler þeirra sem líflátner voru fyrer Guds ords saker, og þess vitnisburdar saker, sem þeir höfdu.

10. Og þær kölludu hárre röddu, og saugdu: Drottinn, þú hinn heilage, og sanne, hversu lengi þá dæmer þu eige, og hefner vors blóds á þeim, sem á jördu búa?

11. Og þeim serhverium einum vard gefenn hvítur dyrcil; og til þeirra vard sagt, at þeir hvíldust enn um nockra stund, þar til þeirra samþiónar og brædur kæmu þar til fullkomlega, hverer einnenn enn nu líflátner skyldu verda, líka sem þeir.

12. Og eg sá, at þad opnade þid siötta innsigled, og siá, þá giördest mikell jardskiálfte, og sólen vard svaurt sem hærusecker, og túnglid vard sem blód.

13. Og stiaurnur himens hrundu á jordena, líka sem annad fíkutre, nær þad hristest af vinde miklum, affleyger sínum fíkum.

14. Og himenenn veik burt, sem þad bókvell, hvert saman verdur vafed, og öll fiöll og eyar hrærdust úr sínum stödum

15. Og jardarennar konungar og höfdingar, og ríkismenn, og höfudsmenn, og magtarmenn, og aller þrælar og frelsborner, fylu ser í holum og hellrum fiallanna,

16. Og sögdu til fiallanna og biarganna: falled yfer oss, og hyled oss, fyrer auglite þess, sem á stólnum situr, og fyrer reide lambsins.

17. Þvíat hinn mikle dagur hans reide er komenn, og hver fær stadest?

## 7. Capitule.

1. Og efter þad sá eg fióra engla standa, á fiórum hornum jardarennar, og þeir helldu inne fiórum vindum jardarennar, svo at eingenn vindur bles á jördena, ne á sióenn, ne á nockurt tre.

2. Og eg sá annann engel uppstíga út af uppgaungu sólarennar, sá hafde innsigle lifanda Guds, og kallade hárre röddu til hinna fiögra englanna, hverium gefed er, at granda jordu og sió.

3. Og sagde: granded eigi jördunne, eigi siónum, ne triánum, fyrr enn ver fáum innsiglad þióna vors Guds í þeirra ennum.

4. Og eg heyrde tölu þeirra sem innsiglader vóru, hundrad, fiórar og fiöratíu þúsunder, sem innsiglader urdu, af öllum kynkvíslum Israels barna.

5. Af kyne Juda, urdu tólf þúsunder innsiglader; af kyne Ruben, tólf þúsunder innsiglader;

6 Af kyne Gad, tólf þúsunder innsiglader; af kyne Asser, tólf þúsunder innsiglader; af kyne Nephthali, tólf þúsunder innsiglader; af kyne Manasse, tólf þúsunder innsiglader.

7. Af kyne Simeon, tólf þúsunder innsiglader; af kyne Levi, tólf þúsunder innsiglader; af kyne Isaschar tólf þúsunder innsiglader.

8. Af kyne Zebulon, tólf þúsunder innsiglader; af kyne Joseph, tólf þúsunder innsiglader; af kyne Ben Jamin, tólf þúsunder innsiglader.

9 Þar efter sá eg, og siá! at skare mikell, hvern eingenn gat taled, af öllum heidingium, og fólke, og kyngkvíslum, og túngumálum, stód framme fyrer stólnum og fyrer lambenu, innskrydder hvítum skrúda, og pálmaviður var í þeirra höndum,

10. Sem köllludu med mikelle röddu, og sögdu: Heilsa se þeim sem á stólnum situr, vorum Gude og Lambenu.

11 Og aller englar stódu umhverfis stólinn, og kringum aullder

augana, og umkring þau fiögur dyren, og fellu fyrer stólnum á þeirra ásiónur, og tilbádu Gud,

12. Og sǫgdu amen. Lof og dyrd, og speke, og þacker, og heidur, og kraftur, og styrkleike, se vorum Gude, frá eylífd til eylífdar, amen.

13. Og einn af ǫldungunum andsvarade og sagde til mín: hverer eru þesser sem umskrydder eru hvítum skrúda? og hvadan eru þeir atkomner?

14. Og eg sagde til hans: Herra, þú veitst þad. Og hann sagde til mín: þesser eru þeir sem komner eru úr miklum harmkvælum, og sinn skrúda þveiged hafa og hvítfágad hann í blóde lambsins.

15. Af því eru þeir, framme fyrer stóle Guds, og þióna hǫnum dag og nótt í hans mustere. Og sá uppá stólnum situr mun búa yfer þeim.

16. Eige mun þá her efter húngra ne þyrsta, og eige mun yfer þá falla sólen ne nockurskonar annar hite.

17. Þvíat þad lambed midt í stólnum mun fódra þá, og leida til lifande vatnsbrunna, og Gud mun afþurka allann grát af þeirra augum.

## 8. Capitule.

1. Og þá þad opnade hid siaunda innsigled, gerdest kyrrleike á himnum, nær um hálfa stund.

2. Og eg sá siau engla; þeir gengu fyrer Gud, og þeim urdu siau básunur gefnar.

3. Og annar engell kom og stód vid altared, og hafde gull reykelsisker, og hǫnum vard miked reykelse gefed, þad hann gæfe til bæna allra heilagra, uppá þad gyllenealtared fyrer stólnum.

4. Og reykur reykelsesins, af bænum þeirra heilagra, geck upp af hende engelsins, fyrer Gud.

5. Og Engellenn tók reykelsiskered, og fyllte þad med elde af altarenu, og kastade því á jǫrdena, og þá urdu radder, og reidarþrumur og elldingar, og jardskiálftar.

6. Og þeir siau englar, sem hǫfdu þær siau básunur, hǫfdu tilbúed sig at básuna.

7. Og hinn fyrste engell básunade, og þá gerdest hagl, og elldur med blóde blandadur, og fell nidur á jǫrdena, og þridiúngur triánna brann, og allt þad græna gras brann upp.

8. Og hinn annar engel básunade, og þar fór líka sem biarg miked af elde brennanda í sióen, og þridiúngur siáfarens gerdest blód.

9. Og þridiúngur lifande skepna í siónum drapst, og þridiúngur skipanna fyrerfórst.

10. Og hinn þridi engell básunade, og þar fell stór stiarna af himne, og hún logade sem blis, og fell yfer þridiúng rennandi vatna, og yfer vatnsbrunnana.

11. Og nafn stiǫrnunnar het remma, og þridiúngur snerest í remmu, og marger menn dóu af vǫtnunum af því þaug voru svo remm vordenn.

12. Og hinn fiórde engell básunade, og þridúngur sólarennar vard slegenn, og þridiúngur túnglsins, og þridiungur stiarnanna, svo þad þridiúngur þeirra vard formirkadur, og þridiúngur dagsins lýste eige, líka einnenn nóttin.

13. Og eg sá og heyrde eins

engel flíúga, midt í gegnum himenenn, og sega med hárre raust: Ve! ve! ve! þeim sem á jørdu búa, framm yfer adrar radder básúnunnar, þeirra þrigga engla, sem enn skylldu básuna.

## 9. Capitule.

1 Og hinn fimmte engel básúnade, og eg sá stiørnu falla af himne, á jørdena, og henne vard gefenn lykell til brunns undirdiúpsins.

2. Og hann lauk upp brunne underdiúpsins, og þar geck upp reykur af brunnenum, svo sem reykur eins mikels ofns, og sólen formyrkadest, og vedred, af reyke brunnsins.

3. Og út af þeim reyk komu engesprettur á jørdena, og þeim vard magt gefen, líka sem þad scorpionar magt hafa á jørdu.

4. Og þar vard til þeirra sagt: at þær skylldu eigi granda grase jardarennar, ne nockru grænu, edur nockurskonar vide, utann einasta þeim mønnum, sem eige hafa Guds innsigle í sínum ennum.

5. Og þeim vard þad gefed, at þær aflífadu þá eige, helldur þad, at þær kveldu þá í fimm mánude. Og þeirra kval var svo sem kval af einum scorpione, nær hann stingur mann.

6. Og á þeim sømu døgum munu menn daudans leita, og eige finna; þeir munu gyrnast at deya, og daudenn munu frá þeim flýa.

7. Og þær engesprettur eru líkar þeim hestum, sem til bardaga eru búner, og á þeirra høfdum voru kórónur gulle líkar, og þeirra andlit var sem manns andlit.

8. Og þær høfdu hár sem konuhár, og tenner þeirra voru sem leona tenner.

9. Og høfdu bryniur svo sem járn bryniur, og þytur þeirra vængia var svo sem buldran af vøgnum margra hesta, sem í bardagann hlaupa.

10. Og þær høfdu hala líka sem scorpionar, og þar voru brodder á þeirra hølum, og þeirra magt var til at plága mennina í fimm mánude.

11. Og høfdu yfer sér konung, einn engel af underdiúpenu, hvers nafn er á ebresku Abaddon, enn á grisku hefir hann þad nafn Apollyon.

12. Eitt ve er umlided: sjá! þar koma enn nú tvø ve á epter.

13. Og hinn siøtte engell básúnade, og eg heyrde eina rødd út af fiórum hornum gyllene altaresins fyrer Gude,

14. Sem sagde til hins siøtta engels, sem básúnuna hafde: Leys þú upp þá fióra engla, sem bundner eru vid hid mikla vatnsfall Euphrates.

15. Og þeir fiórer englar urdu lauser, hverer reidubúner voru, til stundar og dags og mánadar, og árs, at þeir skyllde slá þridiung manna.

16. Og tala þess rídanda hers var tvisvar sinnum tíu þúsundsinnum tíu þúsunder, og eg heyrde þeirra tølu.

17. Og eg sá hestana svo í sýn, og þá sem þar uppá sátu, at þeir høfdu glóande og guler, og brennesteinlegar bryniur, og høfud hestanna voru svo sem leonu

hofud, og út af þeirra munne geck elldur, reykur og brennesteins.

18. Af þessu þrennu er skelfgenn þrid-ungur manna, af eldenum, og reyknum, og brennesteinenum, sem af þeirra munne út geck. Þvíat þeirra magt var í þeirra munne, og í þeirra halum.

19. Og þeirra halar voru høggormum líker, og høfdu høfud, og med þeim sómu gerdu þeir skada.

20. Og þar voru enn menn ofgängs, þeir sem eige voru skelfdner af þessum plágum, hverer eigi yferbót gerdu fyrer verk sinna handa, svo at þeir eige tilbædu Diøflana, og gullz, og silfurs, og eyrs, og steina, og trés afgude, sem hvorke siá ne heyra, ne gánga kunna.

21. Hverer einnenn enga yferbót gerdu, af sínum manndrápum, fiolkynge, frillulife og þiofsku.

## 10. Capitule.

1. Og eg sá einn annann sterkann engel af himnum ofan koma, hann var skrýddur med skye, og regnboginn var á hans høfde, og hans andlit var sem sól, og hans fætur voru líka sem elldsstólpar.

2. Og hann hafde í sinne hende bókarkorn opnad; og hann sette sinn hægra fót á siófenn, og hinn vinstra á jørdena, og hann kallade hárre røddu, líka sem þá león grenjar.

3. Og þá hann kallade, toludu sio reidarþrumur sínar raustir.

4. Og þá þær sjø reidarþrumur høfdu talad sínar raustir, villde eg hafa skrifad þær. Þá heyrde eg eina rødd af himne seigia til mín: Innsigla þú hvad þær sjø reidarþrumur hafa talad, og skrif þad eigi.

5. Og engellenn, hvern eg sá standa á siánum, og á jørdunne, hóf upp sína hønd til himens.

6. Og sór vid þann lifanda frá eylífu til eylífdar, hver himenenn hefir skapad, og hvad þar inne er, og jørdena, og hvad þar inne er, og siófenn, og hvad þar inne er, at hedan af frá skyldi enginn frestur gefast.

7. Helldur á døgum raddar þess sjøunda engels, nær hann mun básuna, þá skal fullkomnadur verda leyndurdómur Guds, svo sem hann kunngerde sínum þiónum, og spámønnum.

8. Og rødden, hverja eg hafde heyrt af himne, talade aptur vid mig og sagde: Gack þú nú, tak þann opnada bækling af hende engelsins, sem á siánum og á jørdunne stendur.

9. Og eg geck burt til engelsins, og sagde til hans: Gef mer bæklingenn. Og hann sagde til mín: Tak hann burt, og svelg hann, og hann mun beiskia kvid þinn, enn í þínum munne mun hann sætur vera sem hunáng.

10. Og eg tók bæklingenn af hende engelsins, og svelgde hann. Og hann var sætur í mínum munne sem hunang, og þá eg hafde eted hann, beiskadest kvidur minn.

11. Og hann sagde til mín: Þú hlýtur aftur at spá fólkenu, heidingum, og tungumálum, og morgum konungum.

## XI. Capitule.

1. Og mer vard gefenn reirleggur, líka sem stafur, og hann sagde: Stat þú upp, og mæl muste-

tere í uds og alltared, og þa sem þar inne tilbidia.

2. Enn Partinn hinn ytsta fyrer Musterenu kasta þu ut, og mæl hann eigi, þvíat hann er heidnum gefenn, og hina heilógu borg munu þeir undertroda, í tvo og fióru tyu mánude.

3. Og eg vil gefa mínum tveimur vottum, og þeir skulu spá, þúsund tvo hundrud og sextiu daga, íklæder sekkum.

4. Þesser eru tvo vidsmiórs tre, og tveir liósastiakar, standande fyrer Gude jardarennar. Og ef nockur vill þeim granda, þa gengur elldur út af þeirra munne, og svelger óvine þeirra.

5. Og ef nockur vill þeim granda, sá hlytur svo líflátenn at verda.

6. Þesser hafa magt himenenn aptur at lúka, at þad rigne eigi á dogum þeirra spádóms. Og þeir hafa magt yfer vötnunum, til at umsnúa þeim í blód, og at slá jordena, med allskyns plágu, svo opt sem þeir vilia.

7. Og nær þeir hafa sinn vitnisburd endad, þa mun dyred, þad útaf undirdiúpenu uppstígur, hallda strid vid þá, og man yfervinna þá, og þá ihelslá.

8. Og þeirra líkamer munu liggia á strætum hinnar miklu borgar, hver andlega kallast Sódóma og Egyptus, þar vor Drottinn er krossfestur.

9. Og þeirra líkame munu nockurer af þiódunum, og kynslódunum, og túngumálunum, og heidingum, siá í þriá daga, og einn hálfann, og munu eigi þeirra líkame leggia láta í grafer.

10. Og þeir, hverer á jordu búa, munu gledia sig yfer þeim, og kæter vera, og giafum sendast sundurdis, þvíat þesser tveir spámenn kvöldu þa sem á jordu búa.

11. Og eftir þria daga, og einn hálfann, fór í þá lífsins ande af Gude, og þeir stódu á sínar fætur, og mikell ótte fell yfer þá sem þa sáu.

12. Og þeir heyrdu rödd mikla af himne fra til þeirra: stiged upp hingat, og þeir stigu upp í himenenn í einu skye, og þeirra óviner sáu þá.

13. Og á þeirre sömu stundu, vard mikell jardskiálfte og tíunde partur borgarennar hrapade nidur, og þar urdu í jardskialftanum ihelslegen siau þúsunder manna; og hinir adrer hrædduft, og gáfu dyrd Gude himensens.

14. Þad annad ve er umlided, siá, hid þridia ve kemur snarlega.

## 12. Capitule.

1. Og hin siaunde engell básunade, og þar gerdust miklar radder á himne, sem sögdu: ríken veralldar eru vorden vors Drottens, og hans Christs, og hann mun ríkia frá eylífd til eylífdar.

2. Og þeir tiórer og tuttugu allidungar, sem frammi fyrer Gude sátu á sínum stólum, fellu fram á sínar ásiónur, og tilbádu Gud

3. Og sögdu: ver þöckum þier Drottinn, Gud almattugur! þú sem ert, og hefer vered, og þú sem tilkomande ert, at þú hefer medteked þinn mikla kraft, og ríker.

4. Og heidingar eru reider vordner, og þín reide er komen, og tíme framlidenna, at dæmast, og laun at gefa þínum þiónum,

spámønnum og Heilogum, og þeim þitt nafn óttast; smáum og stórum, og at glata þeim sem jørdunne glatad hafa.

5. Og mustere Guds vard upp loked á himne, og hans testamentis aurk sast í hans mustere, og þar urdu elldingar, og reidarþrumur, og iardskiálftar, og hagl miked.

6. Og þar byrtest tákn miked á himne, ein kvinna, sólenne umskrydd; og túngled var under hennar fótum, og á hennar høfde var kórona af tolf stiaurnum.

7. Og hún vard þúnguð, og kalladi, og var iódsiúk, og hafde miklar fædingar hríder.

8. Og þar byrtest eitt annad tákn á himne, og siá, mikell dreke raudur, sá hafde siau høfud, og tíu hórn, og á hans høfdum voru siau kórónur.

9. Og hans hale dróg þridiúng af stiaurnum himens, og slengde þeim nidur á jørdu. Og drekenn stód framme fyrer kvinnunne, þeirre sem fæda skyllde, svo at nær hún hafde fædt, at hann uppsvelgde hennar barn.

10. Og hún fædde einn son, eitt sveinbarn, sá stiórna skyllde øll um heidingum med iárnvende, og hennar barne vard burt kippt, til Guds og hans stóls.

11. Og konan flýde á eydemørk, hvar hún hafde fyrerbúenn stad af Gude, at hún fæddest þar þúsund tvø hundrud og sextyu daga.

12. Og þar byriadest eitt stríd á himne. Michael og hans englar berdust vid drekann, og drekenn bardest og hans englar.

13. Og yfervunnu eigi; þeirra stadur vard og einnenn eigi framar meir fundenn á himne.

14. Og sá mikle dreke vard útsnaradur, hinn gamle høggormur, sá sem heiter diøfull og andskóte, hver alla veralldarkringluna viller, og hann vard útsnaradur á jørdena, og hans englar urdu og einnenn útsnarader med honum.

15. Og eg heyrde rødd mikla á himne, segande: nú er heilsa og kraftur, og ríke, og máttur vors Guds, vordenn hans Christs, med því hann er útsnaradur, sem þá ásakade dag og nótt fyrer Gude.

16. Og þeir hafa hann yfervunned fyrer Lambsins blód, og fyrer ord þeirra vitnisburdar, og þeir hafa eige elskad sitt líf allt til daudans.

17. Þar fyrer gledest þer himnar, og þer sem þar inne bygged.

18. Ve þeim á jørdu búa, og á siónum; því at diøfullenn kemur ofann til ydar, hafande reide mikla, og veit at hann hefir stuttann tíma.

19. Og sem drekenn sá, at hann var útsnaradur á jørdena, offsókte hann þá konu, sem þann sveinn hafde fædt.

20. Og konunne urdu tveir vænger gefner, líka sem mikels arnar, svo at hún flyge á eydemørk, í sinn stad, þar hún fæddest um einn tíma, og um tvo tíma, og um hálfann tíma, fyrer augsýn høggormsins.

21. Og høggormurenn gusade vatn efter konunne úr sínum munne, líka sem vatnsflód, svo at hann villde drekkia henne.

22. Enn jørden hialpade konunne, og upplauk sinn munn, og svelgde flóded, sem drekenn gusade úr sínum munne.

23. Og drekenn reiddest konunne, og geck burt at beriast vid þá, sem efter voru af hennar sæde, þeir Guds bodord vardveita, og hafa vitnisburd Jesu Christi.

## 13. Capitule.

1. Og eg stód á sjáfarsande.

2. Og sá eitt dyr uppstíga úr sjónum; þad hafde siau höfud, og tíu hörn, og á sínum hornum tíu koronur, og á sínum höfdum nafn háduungarennar.

3. Og þad dyr, sem eg sá, var líkt Pardelo, og þess fætur voru sem biorna fætur, og þess kiaftur sem leona kiaftur. Og drekenn gaf því sinn kraft og sinn stól, og mikla magt.

4. Og eg sá eitt af þessum höfdum, svo sem være þad sært til dauda, og þess hin banvæna und vard læknud, og öll veralldarkringlan undradist þad dyred, og efterfylgdi

5. Og þeir tilbádu drekann, þann sem dyrenu gaf þá magt, og þeir tilbádu þad dyr og sögdu: Hver er þessu dyri líkur? og hver kann at strída vid þad?

6. Og því vard gefenn munnur til at tala mikla hlute, og háduugar; og því vard máttur gefenn til at hallda strid í tvo og fiaurutyu mánude.

7 Og þad upplauk sínum munne til húdúngar móte Gude, at lasta hans nafn, og hans tialldbúd, og þá á himnum bygga.

8. Og því vard gefed at strída vid Heilaga, og yfervinna þá. Og því vard gefen magt yfer öllum kynkvíslum og tungumálum og heidingum.

9. Og aller, sem á jördu bygga, tilbidia þad, hverra nafn eige eru skrifud á lifande bók lambsins, hvert slátrad er af upphafe veralldar.

10. Hefir nockur eyru, sá heyre.

11. Ef einhver í fángelse leidir, sá mun í fángelse ganga; ef nockur ther ... med sverde, sá skal med sverde sér slegenn verda. Her er þolenmæde og trú heilagra.

12. Og eg sá eitt annad dyr uppstíga af jördunne, þad hafde tvo horn, líka sem lambed, og talade svo sem drekenn.

13 Og þad gerer alla magt hins fyrra dyrsins fyrer því, og þad gerer, at jörden, og þeir sem þar á búa, tilbidia þad fyrra dyred, hvers daudlegar under vorn læknadar.

14. Og þad gerer stór tákn, svo at þad gerer einnenn, at elldur af himne fellur nidur a jördu fyrer menneua.

15. Og þad viller þá sem á jördu búa, fyrer saker þeirra teikna sem því eru gefen til at gera fyrer dyrenu, og þad sagde þeim á jördu bygga, at þeir gere eina mind dyrenu, því sem undena af sverdenu hafde, og lifande var orded.

16. Og því vard gefed, at þad gæfe mind dyrsins einn anda, svo at mind dyrsins talade. Og þad geide, at hverer sem hellst eige tilbidia mind dyrsins, þeir verda sjelslegner.

17. Og þad gerde alla samans smá og stóra, ríka og fátæka, frialsborna og þræla, at þad gaf þeim eitt auðkenningar teikn í sína hægre hönd, edegar í sín enne.

18. Svo at eingenn mær at kaupa eda selia, uten hann hafe þad edur

enningarmerke, eda nafn dyrsins, edur þá tölu nafnsins.

19. Hér er speke. Hver skilníng hefir, sá samanreckne tölu dyrsins, þvíat þad er manns-ins tala, og þess tala er sex hundrud, sex og sextyger.

## 14. Capitule.

1. Og eg sá, og siá, eitt lamb stód a fiallenu Zion, og med því hundrad og fiörutiu þúsunder, sem höfdu nafn födurs þess hins sama, skrifad í ennum sinum.

2. Og eg heyrde eina rödd af himne, svo sem rödd mikilla vatna, og svo sem rödd mikillar reidarþrumu, og röddin sem eg heyrde, var sem hörpuslagara, þeir sem slá sínar hörpur.

3. Og þeir súngu svo sem nyann lofsaung fyrer stólinum, og fyrer þeim fiórum dyrunum, og fyrer öldúngunum, og eingenn gat þann lofsaung numed, útan einasta þeir hundrad og fiörutiu og fiórar þúsunder, sem keypter eru af jördunne.

4. Þesser eru þeir, hverer eige flekkader eru med konum, þvíat þeir eru meyar, og fylgia lambenu epter, hvert þad geingur. Þesser eru keypter af mönnum, Gude til frumgróda, og lambenu.

5. Og í þeirra munne er eige fals funded, þvíat þeir eru ostraffanleger fyrer stóle Guds.

6. Og eg sá einn engel fliúga midt í gegnum himenenn, sá hafde eilíflegt evangelium, til at kunngera þeim sem a jördu sitia, og bygga, og öllum heidin, um, og kynslóttum, og túngumálum, og fólke.

7. Og hann sagde med mikelre rödd: óttist Gud, og gefed hön-um dyrdena. Þvíat komenn er tíme hans dóms, og tilbidied hann sem gert hefir himen og jörd, og sióenn og vatnsbrunnana.

8. Og einn annar engell epterfylgde, sá sagde: fallen er hún, fallen er hún, Babylon hin mikla borg, þvíat hún hefir med víne síns saurlífis drucknad gert alla heidínga.

9. Og hinn þridi engell fylgde þeim efter, og sagde med mikelre raustu; ef nockur tilbidur dyred og þess mynd, og medtekur þad audkenningarmerke á sitt enne, edur sína hönd.

10. Sá mun drecka af víne reidesinnar, sem innbyrlad og skært er í bikar hans bræde.

11. Og mun kvaldur verda med elldi og brennesteine, í augsyn heilagra engla, og fyrer augsyn lambsins, og reykur þeirra pýsla mun uppstiga, frá eylífd til eylífdar, og þeir hafa eige nockura hvíld dag og nótt, sem dyred hafa tilbeded, og þess mynd, og ef nockur hefir medtekid teikn þess nafns.

12. Hér er þolinmæde heilagra: hér eru þeir sem hallda bodorden og trúna a Jesum.

13. Og eg heyrde eina rödd af himne til mín sega: skrifa þú: sæler eru þeir framlidnu, sem í Drottne deya, frá þessu. Já, andenn seger at þeir hvílest af þeirra erfide, enn þeirra verk fylgia þeim epter.

14. Og eg sá, og siá, eitt hvítt ský, og á því skye sat einn, sá líkur var einum mannsins syne, hann hafde gullkorónu á sínu höfde, og í sinne hende hvassann sigd.

15. Og einn annar engell geck út af musterenu, sá kallade med

mikellre raust til þess sem á skyenu sat: slá til med þínum sigde, og sker upp, því kornskerutímenn er komenn, af því at haustyrkia jard-arennar er þornud.

16. Og sá, sem á skyenu sat, sló til med sínum sigde á jordena, og jorden vard haustunnen.

17. Og hinn annar engell geck út af musterenu á himne, sá hafde eirn hvassann sigd.

18. Og annar engell geck út af alltarenu, sá hafde magt yfer elld-enum, og hrópade med miklu kalle, til hins, sem hinn hvassa sigd enn hafde, og sagde: Hoag til med þínum hvassa sigde, og snid af vínklasa jardarennar, þvíat þeir-ra ber eru fulltvaxen.

19. Og engellenn hió til med sínum sigde á jardena, og afsneid vínkviste jardarennar, og snarade þeim í hina miklu vínþrúgu Guds reide.

20. Og vínþrúgan vard utan borgar fergd, og blóded geck út af þrúgenne, allt til beislistanna hestanna, um þúsund og sex hundr-ud akra lengder.

## 15. Capitule.

1. Og eg sá eitt annad teikn á himne, þat var mikid og undarlegt; sio englar hofdu siau hinar sid-ustu plágur, þvíat med þeim somu úrendadest reide Guds.

2. Og eg sá svo sem eitt glersió blandad mengadann, og þá sem sigrad hofdu dyred, og þess mind, og þess teikn, og tolu þess nafns, at þeir stódu hiá glersiónum, og hofdu harpur Guds,

3. Og súngu lofsaung Mosés, Guds þénustu manns, og lofsaung lambsins, segiande: Mikel og undarleg eru þín verk Drottinn Gud almáttugur! rettvíser og sannar-leger eru þíner veger, þú konung-ur heilagra!

4. Hver skal þig eigi hrædast, Drottinn! og prísa þitt nafn? Þvíat þú einn ert heilagur, as því aller heidingar munu koma og tilbidia fyrer þer, því þíner dómar eru openberer ordner.

5. Þar efter sá eg, og siá, þá vard uppluked mustere vitnisburd-artialldbúdar á himne.

6. Og út af musterenu gengu þeir siau englar, sem þær siau plágur hofdu, klædder hreinn klá-ru líne, og gyrdter um briósted gulllindum.

7. Og eitt af þeim fiórum dýr-um gaf þeim siau englum siau gullskáler, fullar reide Guds, þess sem lifer fra eylífd til eylífdar.

8. Og musstered vard fullt af reyk, fyrer dyrd Guds, og hans kraft-an, og eingenn kunne at gánga í must-ered, þar til þær siau plágur þeirra siau engla, fengu enda.

## 16. Capitule.

1. Og eg heyrde rødd mikla úr musterenu; hún sagde til þeir-ra siau engla: Farid burt, og úthelled þeim skálum Guds reide á jordena.

2. Og hinn fyrste geck burt, og hellte sina skál á jordena, og þar urdu til kaun og slædsyr á mónn-um, þeim audkenningar merke dyrs-ins hofdu, og á þá sem þess mind tilbádu.

3. Og sá annar engell hellte út sina skál í sióenn, og hann vard blód, líka sem eins þess daudur er, og nnll lifande sál dó í sió-num.

4. Og sá hinn þridi engell hellte út sína skál i vatnsfiskeu, og í vatnsbrunnana, og þaug urdu blód.

5. Og eg heyrde þann engel segia: Þú Drottinn, sá sem ert, og sá sem varst, þú ert rettlátur og heilagur, at þú dæmer þetta.

6. Þvíat þeir úthelltu blóde heilagra, og spámannanna, og blód hefir þú gefed þeim at drecka því þess eru þeir verduger.

7. Og eg heyrde einn annann engel af álltarenu segia: Iá, Drottinn allmáttugur Gud! sanner og rettvíser eru þíner dómar.

8. Og hinn fiórde engell úthellte sína skál í sólena, og henne vard gefed at gera menn heita med elde.

9. Og menn brunnu af ofurhita, og lastadu nafn Guds, sá magt hefir yfer þessum plágum, og gerdu enga yferbót, honum dyrdena at gefa.

10. Og hinn fimte engell úthellte sína skál yfer stól dyrsins, og þess ríke vard formirkat, og af kvaulum í sundurbitu þeir sínar túngur.

11. Og þeir lastadu Gud á himne, fyrer sínar kvaler, og fyrer sín kaun, og þeir gerdu eigi yferbót fyrer sín verk.

12. Og hinn siaunde engell úthellte sína skál, í þat mikla vatnsfall Euphrates, og vatned uppþornade, svo at tilreiddur yrde vegur konunganna, út af uppgaungu sólarennar.

13. Og eg sá út af munne drekans, og út af munne dyrsins, og út af munne þess falska spámanns, gánga þriá óhreina anda, líka paddum.

14. Og þat eru andar Diofulsins, þeir sem gera tákn, og gánga út til konunga jardarennar, og kringum allann heiminn at samansafna þeim til stríds, á þeim mikla dege Guds almáttugs.

15. Siá, eg kem sem einn þiófur; sæll er sá sem vaker, og helldur sínum klædum, svo at hann gánge eigi nakenn, svo at eigi siáest hans blygdan.

16. Og hann samansafnade þeim í þann stad sem kallast á Ebresku harmagedon.

17. Og sá siaunnde engell hellte út sína skál í vedred, og þar geck út rödd af himne úr stólnum, sem sagde: Þat er skeð.

18. Og þar urdu radder og reidarþrumur, og elldingar; og þar vard mikell jardskiálfte, þvílíkur alldrei hefir vered, upp frá því menn hafa á jördu vered, þvílíkur jardskiálfte svo mikell.

19. Og út af þeirre hinne miklu borg urdu þrir partar, og borger heidinganna hrapadu nidur. Og hin mikla Babylon vard hugleidd fyrer Gude, henne at gefa kaleik víns hans grimdar reide.

20. Og allar eyar flydu, og eingenn fiall urdu funden.

21. Og hagl, stórt sem pund, fell af himne á menn; og menn lastadu Gud fyrer saker plágu haglsins, þvíat þess plága er næsta mikel.

## 17. Capitule.

Og þar kom einn af þeim siau englum, sem hofdu þær siau skáler, talade vid mig, og sagde til mín: Kom, og mun eg syna þer dóm hinnar miklu hórkonu, sem á morgum vatnum sitar.

2. Med hverre hór drygt hafa kongungar jardarennar, og þeir sem á jørdu búa eru druckner vordner af hennar hórunnar víne.

3. Og hann flutte mig burt í anda á eydemørkn. Og eg sá þá konu sitia á fagurraudu dyre, fullu af nøfnum hádungarorda, hafande siø høfud og tíu horn.

4 Og konann var klædd purpura, og vesle raudu, og forgyllt gulle og gimsteinum, og perlum, og hafde í hende gullker, fullt svívirdinger og óhreinende hennar hórunar,

5. Og í hennar enne var skrifad þat nafn; Leyndardómur, hin mikla Babylon, módor frillulífes, og allrar svívirdu á jørdu.

6. Og eg sá kvinnu druckna af blóde heilagra, og af blóde vottanna Jesu. Og eg undradest miøg, þá eg sá hana.

7. Og engelenn sagde til mín: Hvar fyrer undrast þú? Eg mun sega þer leyndann dóm um konuna, og um þat dyr sem hana ber, þat siø høfud hefir, og tíu horn.

8. Þat dyr sem þú hefir sed, þat var, og er eigi, og mun upp aftur koma af underdiúpenu, og mun svo fara í fyrerdæmingu; og þeir sem á jørdu búa, hverra nøfn eigi standa skrifut á lífs bókenne, frá upphafe verallдar, munu undrast nær þeir sá dyred, at þat var, og er eigi, þó at þat se samt.

9. Og her er þat hugskot hveru spekin tilheyrer. Þau siø høfud eru siø fiøll, á hverium konann situr, og þat eru siø kongungar.

10. Fimm eru fallner, og einn er, og sá annar er eigi komenn enn nú, og nær hann kemur, hlýtur hann stuttann tíma at blífa.

11. Og þat dyr, sem var, og er eigi, þat er sá hinn áttunde, og er út af þeim siø, og fer í fordæmingu.

12 Og þau tíu horn hver þú hefir sed, þau eru tíu kongungar, þeir sem ríked enn nú eigi medteked hafa, enn þeir skulu sem kongungar á einum tíma fá magt med dyrenu.

13. Þesser hafa eina meining, og munu gefa sinn kraft dyrenu.

14. Þesser munu strída vid lambed, og lambed mun þá yfervinna, þvíat þat er Drottinn yfer øllum drottnum; og kongungur yfer øllum kongungum, og med hønum þeir sem kallader og útvalder og trúader eru.

15. Og hann sagde til mín: Vatnen, þau þú hefir sed, þar hórkonan situr, eru fólk og lyder, og heidnar þióder og túngumál.

16. Og þau tíu horn hver þú hefir sed á dyrenu, þau munu hata hórkonuna, og munu hana eydelagda og nakta gera, og þeir munu hennar hold eta, og hana med elde brenna.

17. Þvíat Gud gaf þat þeim í þeirra hiørtu, at gera hvad hann meinar, og at gera eins meining, og at gefa dyrenu sitt ríke, þángat til fullkomnad verde Guds ord.

18. Og konan sem þú hefir sed, er hin mikla borg, hver sitt ríke hefir yfer kongungum jardarennar.

## 18. Capitule.

1. Og efter þat sá eg annann engel ofan fara af himne, sá hafde mikla magt, og jørden upplýstest af hans birtu.

2. Og hann kallade af vallde med hárre røddu, og sagde: Hún

er fallen, hún er fallen, Babylon hin mikla, og er diöflanna heimele vorden, og hirdsla allra óhreinna anda, og hirdsla allra óhreinna og hatnrlegra fugla.

3. Þvíat af reidennar víne hennar hórunar hafa aller heidingar drucked, og konungar á jördu hafa med henne hór drygt, og heimsar kaupmenn eru auduger vordner af hennar miklu vellystingu.

4. Og eg heyrde eina adra raudd af himne, sem sagde: Utgángéd af henne mitt fólk, svo at þer verdit eigi hluttakarar hennar synda, uppá þat þer fáed eigi nockud af hennar plágum.

5. Því hennar synder ná allt til himens og Gud minnest á hennar þverúd.

6. Gialdded henne svo sem hún hefir golldet ydur, og gered henne þat tvöfallt, efter hennar verkum Og med þeim bikar sem hún birlade ydur, birled henne þar i tvöfallt.

7. Hvad miked sem þat hún hefir sig tignad, og vidhaft sína þverúd, svo miked innbirled henne af kvölum og ecka, þvíat hún seger i sínu hiarta: Eg sit og em drottning, og eigi mun eg eckia verda, og engann trega mun eg siá.

8. Þar fyrer skulu hennar plágur á einum dege koma, daude, harmur, og húngur; med elldemun hún brennd verda, þvíat aufllugur er Drottinn Gud, sá hana mun dæma.

9. Og konungar jardarennar, þeir sem med henne hafa hór drygt, og i munadsemd lifad, munu gráta hana, og kveina yfer henne, nær þeir siá reyk af hennar bruna.

10. Og munu álengdar standa fyrer hrædslu saker hennar kvala, og sega: Ve, ve, Babylon hin mikla borg, sú hin sterka borg! A einne stundu er komenn þinn dómur.

11. Og kaupmenn á jördunne munu gráta og harma med sialfum ser, þvíat þeirra kaupeyrer vill eingenn kaupa meir.

12. Kaupeyrer gullz og silfurs, og gimsteina, og perlna, og silkes, og purpura, og skarlaks, og allshattadann dyrendes vid, og allshátted ker af fílabeinum, og allra handa ker af dyrmætum vide, og af eyre, og af jarne, og af marmara steine.

13. Cinnamom, og thimian, og salve, og reykelse, og vín, og vidsmør, similin og hveite, kvikke og sande, hesta og vagna, og líkame og sáler manna.

14 Og þat alldine, á hverz þín sál hafde girnd, er frá þer viked, og allt hvad feitt og kostulegt var, þat er frá þer viked, og þú munt eigi þvílíkt lengur finna.

15. Kaupmenn þessarar vöru, hverer af henne auduger vordner eru, munu álengdar standa, af hrædslu hennar kvala, grátande og harmande.

16. Og sega: Ve, ve, hin mikla borg, sem med silke, purpura og skarlate var klædd, og med gulle var yfergyllt, og med gimsteinum og perlum.

17. Þvíat á einne stundu er slíkur ríkdómur foreyddur. Og aller skipherrar, og sá hópur, sem á skipum handterar, og skipverar þeir á siónum handtera, stódu álengdar.

18. Og kölludu, þá þeir sáu reykenn af hennar bruna, og sögdu: Hver er lík þessare hinni miklu borg?

19. Og þeir jusu moldu yfer höfud sér og kölludu grátande og harmande, og sögdu: Ve, ve, sú hin mikla borg, i hverre auduger eru vordner aller þeir sem skip höfdu á sjónum, af hennar vöru, þviat i einne stundu er hún i eyde lögd.

20. Gled þig yfer henne himenn og þer heilöger, Postular og spámenn, þviat Gud hefir ydar dóm á henne dæmt.

21. Og einn aflmikill engell tók upp stein, störann sem kvarnarstein, og kastade honum i sjóenn og sagde: Svo skal med einum gny úkastast hin mikla borg Babylon, og eigi framar fundenn verda.

22. Og saungmannanna rödd, og þeirra sem slá strenge, og þeirra sem i pipur blása, og básúnur, skulu eigi framar meir heyrast i þer, og enger embættes madur, hvers sem hellst embættis hann er, skal meir i þer funden verda, og kvernar hljód skal eigi meir i þer heyrt verda.

23. Og ljóme ljóssens skal eigi framar meir skína i þer. Og rödd brúdgumans og brúdarennar skal eigi framar meir i þer heyrd verda. Þvi þiner kaupmenn voru höfdingar á jördu, þviat fyrer þina fjölkyngi fóru aller heidingar.

24. Og blód spámannanna og heilagra er i henne fundid, og allra þeirra sem á jördu eru sleiger.

## 19. Capitule.

1. Efter þetta heyrde eg rödd mikels skara á himne, segande: Halleluja, heilsa og heidur, dyrd og kraftur sé Gude vorum Drottne.

2. Þviat sanner og réttviser eru hans dómar, at hann fordæmde hina miklu hórkonu, sem jördena med sinne hóran fordiarfade, og blóds sinna þjóna af hennar hende hefir hún hefnt.

3. Og þeir sögdu enn i annad sinn, halleluja, Og reykur hennar gengur upp eylíflega.

4. Og þeir fjórer og tuttugu ölldungar, og þau fjögur dyren, féllu fram og tilbádu Gud, hver á stólnum sat, og sögdu: Amen, halleluja.

5. Og ein rödd geck út af stólnum, sem sagde: lofed vorn Gud aller hans þjónar og þeir hann óttast, bæde smáer og stórer.

6. Og eg heyrde eina rödd mikels skara, og svo sem eina rödd margra vatna, og svo sem rödd mikilla reidarþruma, sem sagde, Halleluja. Þviat Gud sá almáttuge hefir ríked under sig lagt.

7. Fögnum og verum glader, og gefum honum dyrd, þviat brúdkaup lambsins er komed, og hans húsfrú hefir sig tilbúed.

8. Og henne vard gefed, at hún skylde umklæda sig med hreinu og fögru silke (enn þad silke eru réttlætingar heilagra.)

9. Og hann sagde til mín: Sæler eru þeir sem kallader eru til kvölldmáltídar lambsins; og hann sagde til mín: þetta eru sannarleg Guds ord.

10. Og eg fell nidur fyrer hönum, til fóta hans, at eg tilbædi hann. Og hann sagde til mín: Sjá til, ger þat eigi, eg em þinn samþjónn og þinna brædra, þeirra sem hafa Jesu vitnisburd, til-

bid þú Gud, því vitnisburdur Jesu er ande spádómsins.

11. Og eg sá himenenn opnadann; og sjá, einn hvítur hestur, og sá sem þar sat á, het Trúr og sannarlegur, og dæmer og strídir med rettlæte.

12. Og hans augu eru sem eldsloge; og á hans høfde margar kórónur, og hann hafde eitt nafn skrifad, þat eingenn visse, nema sialfur hann.

13. Og hann var klæddur einu klæde, sem med blóde var ádreift, og hans nafn heiter Guds ord.

14. Og honum efterfylgde her, sá á himnum er, á hvitum hestum, klædder hvítu og hreinu silke.

15. Og af hans munne framm geck eitt breidt sverd, at hann slæe med því heidnar þióder; og hann mun stiórna þeim med iárnvende. Og hann føtređur þrúgu víns grimmlegrar reide Guds almáttugs.

16. Og hann hefir eitt nafn skrifad a sínum klædum, og á sínum lendum, svo látande: Konungur allra konunga, og Drottinn allra Drottna.

17. Og eg sá einn engel standa í sólunne, og hann kallade med mikelle røddu; og sagde til allra fugla sem under himne fliúga: Komed og samansafned ydur til kvøldverdar hins mikla Guds.

18. At þer eted holld konunga, og landstiórnara, og holld øflugra, og hesta, og þeirra sem þar á sitia, og holld allra friborenna, og þræla, bæde smarra og størra.

19. Og eg sá þad, dyred og konunga iardarennar, og þeirra lid samanzafnast, til at hallda strid vid þann sem á hestenum sat, og vid hans her.

20. Og dyred vard fángad, og med því sá falske spámadur, sem táknen gerde fyrer því, med hverium hann villte þá, sem auđkenningar merke dyrsins medtóku, og þa sem mind dyrsins tilbádu. Þesser báder urdu lifande fleygder í eldsins díke, þad sem med brennesteine logar.

21. Og þeir adrer urdu skeflegner med sverde, þess sem á hestenum sat, þad út af hans munne geck, og aller fuglar urdu sadder af þeirra hollde.

## 20. Capitule.

1. Og eg sá einn engel nidur fara af himne, sá hafde lykel underdiúpsins, og mikla hlecke i sinne hende.

2. Og hann høndlade drekann, hinn gamla høggorm, hverad er diøfull og andskote, og batt hann um þúsund ár.

3. Og fleygde honum i underdiúped, og innelukte hann, og innsiglade þar ofann yfer, at hann skyllde eige framarmeir villa heidnar þióder, þángad til útendud yrdu þúsund ár; og efter þad skal hann laus verda um stutta stund.

4. Og eg sá stóla, og þeir settust þar á, og þeim vard dómur gefenn, og þeirra sáler, sem afhøfdader voru vegna vitnisburdar Jesu, og fyrer Guds ords saker, og þeirra sem eige høfdu tilbedid dyred, ne þess mind, og þeir eigi medtekid høfdu þess audkenningar merke í sín enne, edur á sínar hendur, þesser lifdu og ríktu med Christo þúsund ár.

5. Enn hiner adrer dandu end-

urlifnudu eige, þar til þúsund ár fullkomnudust. Þetta er hin fyrsta uppríſa.

6. Sæll er sá og heilagur sem hlutdeild hefir i hinne fyrstu upprisu; yfer þvilikum hefir sá annar daude enga magt, helldur verda þeir kennemenn Guds og Christi, og ríkia med hønum þúsund ár.

7. Og nær þau þúsund ár eru fullkomnud, þá mun satan laus verda af sínu fángelse.

8. Og mun útgánga at villa hina heidnu, i fiórum áttum jardarennar, Gog og Magog; at samansafna þeim til barattu, hverra tala er sem sandur i sió.

9. Og þeir uppstigu yfer vídd jardarennar, og umkringdu herbúder heilagra, og hina elskulegu borg, og þar fell elldur frá Gude af himnum og svelgde þá.

10. Og dióſullenn, sá þá villte, vard kastadur i glóande dike, og brennesteín, þar dyred og sá falske spámadur voru; og þeir verda kvalder dag og nótt, frá eylifd til eylifdar.

11. Og eg sá mikenn hvítann stól, og hann sem þar a sat, fyrer hvers auglite himen og jørd flydu, og þeim var eingenn stadur fundenn.

12. Og eg sá hina daudu, bæde stóra og smáa, standa fyrer Gude, og bækurnar urdu upplátnar, og ein önnur bók vard opnud, hver ad er lífsins, og hiner daudu urdu dæmder, efter skriptenne i þeim bókum, efter þeirra verkum.

13. Og siórenn gaf fram þá daudu sem i hønum voru, og daude og helvíte gáfu þá daudu sem i þeim voru, og þeir urdu dæmder, hver efter sínum verkum.

14. Og daude og helvíte urdu kastud i elldsins dike, þad er sá annar daude.

15. Og ef nockur fannst eige skrifadur á lífsinsbók, sá vard burtkastadur i þad elldsins dike.

## 21. Capitule.

1. Og eg sá nyann himen og nyja jørd, þviat hinn fyrste himenn, og hin fyrsta jørd forgeugu, og eru eige meir.

2. Og eg Johannes sá hina, Heiløgu borg, þá nyu Jerusalem ofan hingat fara af himne, frá Gude, tilreidda, svo sem prydda brúd móte sínum manne.

3. Og eg heyrde rødd mikla af himnum segia: siá þar tialldbúd Guds hiá mønnum, og hann mun hiá þeim bygga! og þeir munu hans fólk vera, og hann Gud sialfur med þeim mun þeirra Gud vera.

4. Og Gud mun þerra øll tár af þeirra augum, og daudenn mun eige meir vera, eige harmur ne kveinan, ne helldur pina mun meir vera, þviat hid fyrsta er forgeinged.

5. Og sá á stólnum sat, sagde: siá, eg gere alla hlute nya. Og hann seger til mín: skrifa þú, þviat þesse ord eru saunn og vissuleg.

6. Og hann sagde til mín: þad er gert, eg em á og ó, upphaf og ender, eg vil þyrstum gefa af brunne lifande vatns, gefens.

7. Hver yfervinnur, sá mun erfa allt þad; og eg vil hans Gud vera; og hann mun minn sonur vera.

8. Enn þeim óttafullum, og vantrúndum og ógnarlegum, og mann-

drápurum, og frillulifnadarmønnum og taufrurum, skúrgodadyrkurum, og øllum lygurum, þeirra hlútdeild mun vera í díke því, sem med ellde og brennesteine logi ar, hvertad er sá annar daude.

9. Og einn af þeim siau englum, sem hafde þær siau skáler, fullar med þeim siau sídurstum plágum, kom at mer, og talade vid mig, og sagde: kom, eg vil sýna þer kvinnuna, brúd lambsins.

10. Og hann leidde mig burt í anda, uppá stórt og hátt fiall, og sýnde mer hina miklu borg, þá Heilogu Jerusalem, nidur stígat fara af himne frá Gude.

11. Sú hafde Guds dýrd, og hennar liós var líkt hinum dýrmætasta steine, einum skærum Jaspis.

12. Og hún hafde mikla og háfa múrvegge, og hafde tólf port, og í portunum tólf engla, og nøfn skrifud, hverad eru tólf kinkinder Israels barna.

13. Af austre þriú port; af nordre þriú port; af sudre þriú port; af vestre þriú port.

14. Og murvegger borgarennar høfdu tólf grundvelle; og í þeim sømuu, nøfn þeirra tólf postula lambsins.

15. Og sá vid mig talade hafde einn gullegann reyr, med hverium hann skylde mæla borgena, og hennar port, og múrvegge.

16 Og borgen liggur ferkøntud; og leingd hennar er svo mikel sem breidden. Og hann mællte borgena med reyrnum, tólf þúsund akraleingder: enn leingd og breidd og hæd borgarennar er eins.

17. Og hann mællte hennar múrvegge hundrad fiørar og fiørutíu álner, efter eins manns mælingu hvera engellenn hefir.

18. Og bygging hennar múrvegga var af Jaspis, og borgen af skíru gulle, eins skær, sem gler.

19. Og grundveller múrvegga borgarennar voru prýdder med allshátadum gimsteinum; hinn fyrste grundvøllur var Jaspis, sá annar Saphir, þridi Chalcedonius, fiórde Smaragdus.

20. Fimte Sardonichus, siaumde Sardis, siaunde Chrysolithus, áttunde Berillus, níunde Topasius, tíunde Chrysoprás, ellefte Hyacinthus, tólfte Amethyst.

21. Og þau tólf porten voru tólf perlur, og ser hvert portid var af einne perlu, og stræte borgarennar voru af skíru gulli, svo sem gegnumskínande gler.

22. Og eg sá þar eige mustere inne, þvíat Drottinn Gud almáttugur er hennar mustere, og lambed.

23. Og borgen þarf hverke vid sólar ne túngls, at þau lýsu í henne, þvíat Guds dýrd upplýser hana, og liós hennar er lambed

24. Og þeir heidingar sem hólpner verda, gánga í því sama liósi, og konungarner á jørdu munu innflytia sína dýrd í þá hina sømu.

25. Og hennar hlid verda eige um dagenn aftur lukt, þvíat þar mun eingen nátt vera.

26. Og þángad til hennar mun flytiast dýrd og prís heidinganna.

27. Og eige almennelect skal þar nockur stadar inngánga eda þad, sem gerer andstyggd og lyge,

helldur; þeir sem skrifader eru á lifande bók lambsins.

## 22. Capitule.

1. Og hann synde mer hreint vatnsfall lifande vatns, skært sem Chrystallus, framm flióta af stóle Guds og lambsins, midt á hennar stræte.

2. Og bádummegen vatnsins stód lifsins tre, og þad bar tólf hausa, og færde sinn ávöxt á öllum mánudum, og laufblöd tresins dugdu til heilsubótar heidingium.

3. Og þar verdur eingen bölvan framarmeir; og stóll Guds og lambsins mun þar inne vera, og hans þiónar munu hönum þióna.

4. Og hans andlit siá; og hans nafn mun í þeirra ennum vera.

5. Og þar mun eingen nótt vera, og eige vidþurfa nockorar lysingar, eda lióss sólarennar, þvíat Gud Drottinn mun siálfur upplysa þá. og þeir munu ríkia frá eylífd til eylífdar.

6. Og hann sagde til mín: þesse ord eru vissuleg og sönn. Og Gud, heilagra spámanna Drottinn hefir útsendt sinn engel, til þt at kunngera sínum þiónum, hvad snarlega ske skal.

7. Siáed, eg kem snart. Sæll er sá sem vardveiter ord spádómsins í þessare bók.

8. Og eg em Johannes, sem þetta sed og heyrt hefi. Og þá eg hafde þad heyrt og sed, fell eg framm at tilbidia fyrer fótum engelsins, þess mer synde þetta

9. Og hann seger til mín: gæt at, at þú gerer eige þetta, þvíat eg em þinn samþiónn, og þinna brædra spámannanna, og þeirra sem vardveita ord þessarar bókar; tilbid þú Gud.

10. Og hann seger til mín: innsigla eige ord spádómsins í þessare bók, þvíat tímenn er í nánd.

11. Hver illur er, sá gere meira illt, og hver óhreinn er, sá se óhreinne; enn hver rettvís er, sá gere enn nú rettlæte, og hver heilagur er, sá verde enn heilagre

12. Og siá þú, eg kem snarlega, og mín verdlaun med mer, at eg gialde hveirum sem einum, efter því, sem hans verk munu verda.

13. Eg em á og ó, upphaf og ender, fyrstur og sídarstur.

14. Sæler eru þeir sem hans bodord vardveita, uppá þad, at þeirra magt se á lífstrenu, og at þeir um hlidenn inngánge í borgena.

15. Þvíat þar fyrer útan eru hundar, og fiölkyngis menn og saurlifnadar, og manndráparar, og skurgoda dyrdkendur. og aller þeir sem elska og fremia lyge.

16. Eg Jesus útsende minn engel, at hann vitnade ydur þetta í samkundum. Eg em rót Davids ættar, skær morgunstiarna.

17. Og andenn og brúdenn seger: kom! og hver sem heyrer, sá sege: kom! og hver hann þyrster, sá kome, og hver hann vill, sá medtake vatn lífsins, gefens.

18. Enn eg vitna fyrer öllum þeim sem heyra ord spádómsins í þessare bók, at ef einhver setne þar nockud til; þá mun Gud

tilsetia yfer hann þær plágur, sem skrifadar eru í þessare bók.

19. Og ef einhver tekur þar nockud frá, af ordum bókar þessarar spásøgu, þá mun Gud afmá hans deilld af lífsbókenne, og af hinne Heiløgu borg, og af því sem í þessare bók skrifad er.

20 Þetta seger sá þetta vitnar, já, eg kem snarlega, amen. Já, kom þú Drottinn Jesus!

21. Nád vors Drottinn Jesu Christi se med ydur øllum, Amen.

Endar hins nya Testamentes



